*Jóhanna Ásgeirsdóttir*
*á blessaða bók þessa*

Psalm. 119 –
Lofadur sértu Drottinn! Kenn mér þín Réttindi.
Bud! gefdu þad Lífferni mitt, hallde út af öllu Hiarta þín
Réttindi! Ψ. 130. Eg vænti Drottins, mín Sæla
hún bídur, og eg vona uppá Hans Ord. Ψ. 144 – v. 15 –
Heppid er þad Fólk, hvers Gud ad Drottinn er.





# BIBLIA,

Þad er

# Oll Heiløg Ritning

## Utløgd a Norrænu;

Epter Þeirre Annare Edition Bibliunnar sem finnst
prenntud a Hoolum i Islande
Anno MDCXLIV.

## Med Formaalum og Utskijringum

## Doct. MARTINI LUTHERI,

Einnig med

## Stuttu Innehallde sierhvers Capitula,

og so

## Citatium.

---

Þesse Biblia kostar O-Innbundinn Einn RijkisDal og Slettann;
Enn Innbundinn med Spennlum, Tvo RijkisDale og Fiora Fiska.

---

Prenntud i KAUPMANNA-HOFN,
I þvi Konunglega Wäysen-Huuse, og med þess Tilkostnade,
af
Gottmann Friderich Kisel,
Anno MDCCXLVII.

## Fa-ein Ord til Lesarans
### Hvad athugande se um þetta Bibliu-Verk!

Sa Mis-munur sem finnst i þessare Edition Jslendsku Bibliunnar, fra þeirre sem er utkomenn a Hoolum Anno 1644. (epter hverre þesse er prenntud) er innefalinn i þessu:

(1.) Ad Innehalld Sierhvers Capitula er tilsett.

(2.) Sierhverium Capitula er Skipt med vissre Tølu, I. II. III. IV. &c.

(3.) Adrar Citatiur, edur Parallela, hafa vered tilsettar under Sierhvert Vers, enn Ordenn, hvar þær ega vid, viisast hver-vetna med þessu Merke *

(4.) Utskijringar, sem kallast a Latinu Marginalia Lutheri, standa under þvi Verse sem þær ega vid, og Innviisast med Bokstøfum, a, b &c. (Annars ega þær ecke ad lesast under eins og Textenn, J, edur fyrer, almennelegum Søfnude) Hin ønnur Marginalia hafa ei haft Rum, þvi hefur þeim vered sleppt, og Nockud sett allra Efst a hverre Siidu, er syne ad Nockru leite Hvert Inntak sie þeirrar Paginæ &c.

(5.) Af Formalunum hefur Fiorum sleppt vered i þvi Nya Testamente, og nockur Ord hafa vered Insett i Textann, þo ecke utan i Allfaum Stødum, i Hverutveggia Testamente, þvi þau finnast ecke i þeirre Edition 1644; Enn þetta, sem annad, hvers her getur, vidviikiande þessu Bibliu-Verke, hefur vered giørt epter Hærre Skipan.

(6.) Ars-Tala a Spaziunne hefur sett vered under Sierhvert Vers med þessu Merke, * edur [ ], er syne, hvar Sliikt a heima.

(7.) J Bokstøfunenne hefur Engu breytt vered, utan til Lagfæringar og Betrunar; Ecke helldur Neinu i Textanum, utan hvar Prennt-Villur hafa orded ad lagfærast, E g.. J Tølu Versanna, hvad sierdeilis er athugande i Sirachs Book &c. Enn hvad hellst sem Mistekist hefur i þessu Bibliu-Verke (J hvers Revision hin mesta og møgulegasta Kostgiæfne hefur vered brukud) eru Sann-Christner og Rett-Skiniande bedner siælfer ad leidretta epter þeirre Jslendsku Bibliu sem Sal. Biskupinn Hr. Þorlakur Skulason hefur lated prennta (med þvi Hun er Original þessarar Editionis) ad þvi leite sem hun a ad brukast til Leid-Rettingar i sliiku Tilfelle, epter þeirra ælite sem hafa Vitsmune til ad dæma þar um.

# Bækur
hins
# Gamla Testamentesins:

# Spꜳmennerner:



For=

# Formaale

yfer

# Hid Gamla Testamented.

## D: Mart: Lutheri.

Af þvi Gamla Testamentenu hallda sumer Menn lijted, so sem ad sie þad ad eins gefed Gydinga Folke, og hafe nu Enda, og ad þad hallde ecke annad enn umlidna Giorninga, meinande, ad þeim nægest þad Nija Testamented, og uppleita Allegorias, þad er Andlegar Meiningar i þvi Gamla Testamentenu, hveria Meining ad haft hefur Origenes, Jeronymus, og fleyre adrer merkelegir Menn. Enn Christus seger Joh. 5. Rannsaked Ritningena, þviad Hun ber Vitnisburd um Mig, og S. Pꜳll bijdur Timotheo, ad hann skule vera Idenn i Lesningu Ritningarinnar. Og til Rom. 1. hrosar hann, ad Evangelium sie af Gude i Ritningunne fyrerheited, og 1 Cor: 15 seger hann so, ad Christus sie kominn af Blode Davids epter Ritningunne, og sie dꜳenn, og af Dauda upp aptur risenn. J sama Mꜳta vijsar S. Petur, optar enn eitt Sinn, aptur til Ritningarinnar. Og þetta giora þeir þar fyrer, ad þeir vilia kienna oss, ad vier ecke skulum fyrer-lijta Ritning þess Gamla Testamentes, helldur lesa Hana vandlega, med þvi, ad þeir sialfer þad Nija Testamented so stadfastliga grundvalla og bevijsa med þvi Gamla Testamentenu, og skiota sinu Mꜳle til þess. So sem þad S. Lucas skrifar Act: 17, ad þeir i Thessaloniu Borg hafe daglega rannsakad Ritningarnar, hvert þær hiellde so sem S. Pꜳll hann kiennde; so sem nu þad ecke somer i nockurn Mꜳta, ad fyrerlijta Grundvall og Bivijsaner þess Nija Testamentesins, so Dijrmætt og Verdugt ꜳ þad Gamla Testamented hallded ad vera. Og hvad er Nija Testamented annad, enn ein Opinnberleg Predikun og Bodan ut af Christo, frammsett med Greinum hins Gamla Testamentes, og fyrer Christum uppfylld og framm kominn?

Enn uppꜳ þad, ad þeir sem Fꜳfroder eru, og sialfer ecke betur kunna, mætte nockra Innleiding og Undervijsun fꜳ, Hverninn þeir meige þar inne lesa, þeim til Nytsemdar og Gagns, þꜳ hef eg þennann Formꜳla samsett, epter mijnum litlum Formætte, sem GUD hefur mier gefed, Bidiande og ꜳminnande hvern og eirn Gudhræddann, Fromann, Christinn Mann, ad hann lꜳte ecke hneixla sig þad O-breytta Mꜳl, og þær Einfølldu

Froasagner sem opt og O-fialldann kunna fram ad koma fyrer hann; Helldur sie þess O-efadur, Hversu Obreytt og einfalldlegt sem það er oa ad sioa, þoa er það alltsamann ecke annad enn Ord, Verk, Domar, og Giorningar þeirrar Hoaleitu Guds-Guddomligrar Dijrdar, Magtar og Vijsdoms. Þviad þetta er Su Ritningenn, sem alla Spekinga og Vijsenda-Menn ad Þussum giorer, og stendur alleina openn fyrer Smoa-Bornum, og þeim O-frodu, so sem Christur sioalfur seger Matth: 11. Þar fyrer legg froa þier þinn Þotta og þijna Meining, og haf og hallt Þessa Ritning fyrer þann Allra-Ædsta, Besta og Helgasta Helgedom, og fyrer þoa Allra-rijkustu Gulls Uppsprettu, hver ed alldrei kann upp-ausinn ad verda, i hverre alleina þu moatt finna Guddomlega Speke og Vitsku, hveria GUD hier so Einfalldlega og Obreytt frammsetur, til þess, ad lækka og nidurleggia allann Metnad Mannlegrar Vitsku og Speke; Hier moattu finna þa Reifana, og þa Jotuna, hvar ed Christus liggur i, hvert ed Eingillinn vijsar Hyrdurunum. Þesser Reifar eru ad vijsu einfallder, og litelmotleger, enn Sa Fiesiodurinn, Christur, sem þar i þeim vafinn er, Hann er dyrmætare enn fra meige segia.

So skalltu nu vita, ad þesse Book er ein Logmoals Book hver ed kienner Hvad Menn skulu giora, og ecke giora, og jafnframt þessu frammsetur hun Dæme og Giorninga, Hverninn þetta Logmoal hefur hallded vered, edur broted. oalijka sem það Nija Testamented er Evangelium, edur ein Noadar-Book, kiennande, Hvar Menn skulu það foa og odlast, ad þeir gete Logmoaled uppfyllt. Enn so sem i Nija Testamentenu, jafnframt Noadarinnar Lærdome, verda og adrar Kienningar frammsettar, hveriar ad eru Logmoal, og Bod-Ord, Hollldenu til Aptur-Halldz, þviad i þessu Lijfe verdur Andinn ecke al-giordur, og ei helldur kann Noadinn einsomul ad rijkia. Svo eru og eirninn i þvi Gamla Testamentinu, jafnframt og med Logmoalenu, nockur Fyrerheit og Greiner ut af Noadinne, med hverium þeir Heilogu Fedur og Spoa-Menn, under Logmoalenu, hafa i Trunne a Christum, lijka sem vær, Soaluholpner orded.

Þo so sem ad Eiginnlegur Hofud-Lærdomur hins Nija Testamentis er þetta, ad boda og tilsegia Noad og Frid, fyrer Syndanna Fyrergefning i Christo, so er þetta Eiginnlegur Hofud-Lærdomur hins Gamla Testamentisins, ad kienna og frammsetia Logmoaled, syna Monnum Syndena, og heimta Good-Verkenn. Þessa skalltu vænta i þvi Gamla Testamentenu.

Og ad vier First tolum um Moyses Bækur, þa kenner hann i þeirre Firstu Bookinne, Hverninn allar Skepnur sieu skapadar, og (Hvad ad er hellst Sok og Efne hans Skriftar) Hvadann Syndenn sie kominn, og Daudinn, Einkum, fyrer Fall Adams, utaf Hreckvijse Diofulsens. Enn strax þar epter, oadur enn Moysis Logmoal kemur, þa kienner hann Hvadann su Hioalp skule koma, til ad burtdrijfa Syndena og Daudann, Einkum sem er, Ecke fyrer Logmoaled, edur Eiginnleg Verk (med þvi þa var eckert Logmoal) helldur fyrer Sæde Kvinnunnar, Christum, Hver ed Adam og Abraham var fyrerheitinn: Uppa það, ad Truenn yrde i fra Upphafe Ritningarinnar, og i Henne allre ut til Enda prijsud, framm yfer Oll Verk, Logmoal, og Verdskulldan. So er nu noalega Firsta Book Mosis ecke annad enn Epterdæme Truarinnar og Vantruarinnar, synande Hveria Avoxtu Truinn og Van-Truinn af sier leide, og er ad mestu ein Evangelisk Book.

Þvi

Þvi nærst, i Annare Bookinne, þa Mann-Kined var fiolgad, og Heimurinn var fullur, og var so sockinn i Mirkred, ad Einginn visse upp fra þvi nælega, Hvad Syndenn være, edur Hvadann Daudenn kominn være, þa leider GUD Moysen framm med Lögmaaled, og tekur til sijn Sierdeiles Folk, til þess, ad upplysa þar med ad Niju Heiminn, og ad straffa Syndena fyrer Lögmaaled, og hana ad opinnbera. So umgyrder hann þetta Folk med allra-handa Lögmaale, og skilur þad fra öllum ödrum Þioodum. Hann bijdur þeim, ad uppbyggia eina Tialldbud, og skickar þeim Sierdeiles Þionustu-giörder, setur til Hofdingia, og adra Embættis-Menn, og forsorgar so sitt Folk med Lagasetningum og Mönnum, hid aagiætlegasta, so ad þeir hefde hina Fegurstu Stiornan, bæde Holldlega fyrer Heimenum, og so Andlega fyrer Gude.

J Pridiu Book verdur sierdeilis innskickadur Kienne-Mannskapurinn, med sijnum Lagasetningum og Ceremoniis, hvar epter Kienne-Mennerner skylldu sier hegda, og kienna, og undervijsa Folkenu. Hier maa siaa, ad þetta Kiennemannlega-Embætte er alleinasta vegna Syndarinnar innsett og skickad, ad hun skule Folkenu kunn og opinnber verda, og fyrer GUDe verda forlijkt, so ad allt Kiennemannsins-Embætte er þad, ad umgangast med Syndunum, og þeim Synda-brots Mönnunum. Þar fyrer var og Kienne-Mönnunum eckert Fastagots til Eignar gefed, eige helldur Veralldleg Rijkes-Stiorn bodinn, nie Fyrerheitinn, helldur þad alleina, ad þeir skylldu annast þad synduga Folked.

J Fiordu Book, þegar Lögmaaled var nu gefed, Kienne-Mennerner og Hofdingiarner tilsetter, og Tialldbudenn, og Þionustu-giördinn uppreist, og þa allt var tilbued, þad sem Guds Folke tilheyrde, þa hofst upp Verked sialft, og Tijdkan þeirra Hluta, sem tilskickader voru, og var giörd Reynsla til, Hvern Frammgang slijkar Skickaner hafa villdu.

Þar fyrer skrifar su sama Book, ut af so morgum Dæmum Ohlijdnennar, og Plaagum þessa Folks, þar med verda nockrer Lagasetningar Vidaukner og Utskijrder, þviad so skiedur hvervetna, ad audvelldlegt er ad utgefa nockurt Lögmaal, enn þegar þad skal halldast, og hafa Frammgang, þa koma meir enn nogar Hindrarner, so þad vill ecke Frammgang faa, so sem Lögmaaled krefur. So ad þesse Book er eitt merkelegt Epterdæme, Hvorsu ad öldungis til einskis er, ad vilia med Lögmaalenu giora Menn froma, og Riettlaata, helldur so sem S. Paall seger, ad Lögmaaled verke ecke utann Synd og Reide.

J Fimtu Bokinne, þa ed Folkid fieck Refsing vegna sinnar Ohlijdne, og Gud hafde nockud Lijtt lockad þad med Velgiörningum, þa ed Hann gaf þeim þau Tvo Konga-Rijkenn, so ad þeir þess helldur hiellde Hans Lögmaal med Alhuga og Elsku, þa took Moses upp aptur giörvallt Lögmaaled, med öllu þvi sem til hafde bored (ad frsatteknu þvi sem Kiennemannsskapnum tilheyrde) og utleggur og skijrer so Allt ad Niju, þad sem aa-hrærer bæde þad Andlega og Veralldlega Vallded Folksens. Med þessum Hætte Fullnægiu giörer Moses hvervetna sijnu Embætte, svo sem annar algiördur Legsetninga-Madur, og setur ecke ad eins Lögmaaled, helldur er Hann þar naalægur, og helldur Mönnum til ad vardveita þad, og ef Brestur er a nockru, þa utskijrer hann þad og endurbæter. Enn þesse Utskijring Lögmaalsens, i Fimtu Bookinne, hefur ecke annad sierlegt inne ad hallda, utann Truna til Guds, og Kiærleikann til Naungans, þvi þangad heyra Aller Lagasetningar Guds.

Guds. Þar fyrer mæter Moses med sinne Gloseran og Utleggingu ollu þvi sem Truna til Guds maa nidurbriota (og þetta giorer hann) allt til hins Tuttugasta Cap: Sijdann upp fra þvi mæter hann þvi sem Kiærleikann hindrar, allt til Enda Bookarinnar. Hier er Firſt athugande, ad Moses bindur Folked so grandvarliga med sijnum Lagasetningum, so ad hann gefur ei Mannligre Skinseme nockud Rum, ad utvelia nockud Verk, edur nockurs Konar Eginnlega Guds-Pionustu upp ad dikta. Þviad hann kienner ecke alleinasta ad ottast Gud, Honum ad trua, og elska Hann, helldur frammsetur hann og so marga Hoattu Gudlegrar Pionustugiordar, med Fornfæringum, Heitum, Festum, Bindinde etc. so ad eingenn Þorf er nockud Nijtt ut ad velia. Hann kienner og so eirninn, Hverninn Menn skulu planta, uppbiggia, kvongast, beriast, Bornum og Hiuum stijra, selia, kaupa, til Laans ad taka, aptur ad leysa, og allt hvad hid Ytra og Innra er Þorf ad giora, so naakvæmliga, ad sumer Setningar synast ad mestu ad vera Pussleger og Onaudsynleger.

Enn eg spyr, Hvar fyrer giorer Gud þetta? Vissulega fyrer þa Grein, ad med þvi Hann hefur teked þetta Folk sier til Eignar, ad þad skyllde vera Hans Eged Folk, og ad Hann skyllde vera þeirra Gud, þa villde Hann so med þessum Hætte Stiorna þeim og stijra, so ad j ollum þeirra Verkum være þeir Fullvisser uppa þad, ad þau sieu og være riett fyrer Gude. Þviad hver sem hellst ad giorer nockurt Verk, hvert ad ei er boded j Guds Orde, þad sama Verk stodar eckert fyrer Gude, helldur er þad til Onytes. Þviad Hann fyrerbydur j hinum 4 og 13 Cap: þeirrar Fimtu Bookar, ad auka nockru vid sitt Logmaal, og j 12 Cap: seger Hann, Ad þeir skule ecke giora hvad þeim sialfum riett synist.

Og Psalltarinn, og aller Spaamennerner kalla upp um þetta, ad Folked giore God-Verkinn, þau sem þeir hafa sialfer utvaled, og af Gude voru ecke bodinn. Þviad Gud vill ei, nie kann ad lijda, ad þeir sem Hans eru dyrfest nockud ad giora þad sem Hann hefur ecke boded, og bifalad, hversu gott sem þad synest ad vera. Þviad Hlijdninn er gofugust og aagiætust allra Verka, Hun sem ad helldur sier vid Guds Ord.

Enn af þvi, ad þetta Lijf maa ei vera aan Ytre Guds Pionustugiordar og Setninga, þa hefur Hann so marghaattada Setninga frammsett fyrer þa, og med sijnu Bode þa stadfest, uppa þad, ef ad þeir yrde, edur villde giora Gude nockra Ytre Pionustugiord, þa mættu þeir hafa einhvoria af þessum, og ecke utvelia neitt epter þeirra Eginnlegre Giedþeckne, so ad þeir være þess fullvisser, og O-efader um þad, ad þad Verk være giort epter Guds Orde, og j Hlijdne vid Hann. J þennann Maata var þeim a allar Sijdur varnad og bannad sinne Eginnlegre Skinseme og Sialfrædes Vilia epter ad filgia, ad giora God-Verkinn, og riettelega ad lifa, og hofdu þo æred nog Rum, Stad, Tijd, Personur, Verk og Skickaner þeim fyrerlagt og sett, so ad þeir þurftu ei aa ad velia um nockurn Hlut, ad þeir yrdu ad epterfilgia Dæmum annarligrar Guds Pionustugiordar, vegna þess þeir hefdu ei Pionustugiorder nie Skickaner so margar sem þyrfte.

J Annare Grein er merkiande, ad Logmaalid er med Þrennu Mote, Sumt Logmaal talar ecke utann um Stundleg Audæfe, so sem j hiaa oss eru Keysara-Rietturinn, og Lands-Loginn, þetta Logmaal er af Gude gefed og sett, einkum vegna þeirra Hreckvijsu, so ad þeir giore ecke verra, þar fyrer er þad Logmaal helldur fyrerbiodande, og varnande

Logmaal, helldur enn Lærdoms Logmaal, so sem þa Moyses bydur ad skilia vid Eiginn-Konuna, ad gefinne Skilnadar Skroa, Item, Ad Madur mætte naudga Eiginn-Konunne til Vandlætingar-Offurs, og eiga margar Kvinnur, Slijkt allt er Veralldlegt Logmaal. Annad Logmaal er þad, hvert ed talar um þa Ytre Guds Pionustugiord, so sem hier adur fyrre sagt er.

Yfer þetta hvertveggia Logmaaled geingur nu þad Logmaaled ut af Trunne og Kiærleikanum, so ad allt annad Logmaal hlijtur ad hafa sinn Skamt og Mæler, epter Trunne og Kiærleikanum, enn sieu þau j mote Trunne og Kiærleikanum, þa skal þad Logmaal aftakast med ollu.

Hiedann kemur þad sem vier lesum, ad David lijfliet ecke þann Manndraapara Joab, þar hann hafde þo j Tvær Reisur til Dauda unned. Og 2 Sam: 14. lofar hann Konunne af Thekoa, ad hennar Sonur skule Lijfe hallda, hver ed drepeð hafde Brodur sinn. Eige drap hann helldur Absalon. Item, David sialfur neytte af þeim Heilogu Fornar-Braudum sem Kienne-Monnunum einum tilheyrdu. Item, Thamar hugde, ad hun munde med Kongsens Leyfe meiga eiga sinn Samfedra Brodur Ammon. Ut af þessum og odrum þvilijkum Tilfellum og Dæmum maa lioslega sia og merkia, ad Konungar, Kiennemenn, og Hofdingiar, hafa optsinnes viked af Logmaalenu, þa þegar ad Trunne og Kiærleikanum hefur þott þess Þorf vera, hvar ut af ad augliost er, ad Truinn og Kiærleikurinn þau eiga ad raada framm yfer allt Logmaal, og hafa þad under sijnu Vallde. Þviad med þvi, ad allt Logmaal Einkum framm-filger Trunne og Kiærleikanum, þa skal Eckert þeirra framar-meir gillda fyrer neitt Logmaal, ef ad þad bydur nockud j mote Trunne og Kiærleikanum.

Þar fyrer fara Gydingar miog villt enn nu a þessum Dege, ad þeir so streingilega hallda sumt af Moysis Logmaale, so þeir laata fyrr Frid og Kiærleika falla j Grunn, enn þad þeir ete og drecke med oss, edur giore annad þvilijkt, og þanninn aalijta þeir ecke rietta Meining Logmaalsens, þviad þetta er ollum nytsamlegt, ad hafa þennann Skilning a Logmaalenu, ecke alleinasta Gydingum, helldur og so Ollum odrum, þeim sem under Logmaalenu lifa. Þviad so seger Christur Matth. 12. ad leyfelegt sie ad briota Þvott-Dagenn, ef ad Uxe fellur i Grysiu, og draga hann upp, hvad þo var stundlig Naudsyn og Tion, Hvad miklu framar og helldur er þa leyfelegt, ad briota allskins Logmaal, ef ad Lijfs Haaske vid liggur, so framt sem þad skiedur ecke aa moote Trunne og Kiærleikanum, so sem Christur seger, ad David hafde giort, þa ed hann aat þau Heilogu Braudenn. Marc. 3?

Enn hvad hefur þad ad merkia, ad Moses samanblandar og fleinger sijnum Lagasetningum? Hvarfyrer setur hann ecke Veralldlegt Logmaal sier i Lage, og Andlegt Logmaal sier i Lage, og so eirninn Truna og Kiærleikann sier i Lage? Hier ad auk tvijtekur hann stundum hid sama Logmaal, og hefur so opt þau somu Ord, so þad er ad mestu leidinlegt ad lesa þad og heyra? Andsvar: Moses skrifar epter þvi sem þad tilgeingur, so ad hans Book er ein Fyrermindan og Epterdæme, Hverninn þad tilgeingur i Veralldlegre Vallds-Stiorn, og i þessu Lijfe, þviad soo geingur þad til, þegar nockur Hlutur skal Framgang hafa, ad stundum hlijtur þetta Verk ad skie, stundum eitt Annad; Og ei er mogulegt nockrum Manne ad gieta hegdad sijnu Lijfe, med þvi Jafnadar-Giede (ef þad skal annars Gudlegt vera) ad hann yoke aa einum Dege ecke utann Andlegt Logmaal, og annann Daginn ecke utann Veralldlegt Logmaal, helldur hefur GUD so samann-meingad og sleged ollum

 Laga-

Lagasetningum tilsamans, þvi lijkast sem Stiörnum og Himnenum, og Blomstrum og Akrenum, svo ad Madur maa allar Stunder vera reidubuinn til sierhvers Verks, hvert sem First ad Hondum kiemur, Svo er og Moses Book skrifud oan nockrar sierlegrar Skipanar, og er þvi eina blandad vid hid annad.

Enn þad, ad hann so fast frammfilger og tvijtekur opt hid sama, þar med audsyner hann Art og Edle sijns Embættes. Þviad hver hann vill stiorna Folke med nockru Logmaale, hann hlijtur þvi framm ad filgia med Jafnade, og naudga Monnum til Hlijdnennar, ei olijkt og Asnanum til Erfides naudgad er. Þviad eckert Logmaals Verk veitest af sialfkrafa oast og Elsku, þad er allt Naudung og Þvijngan. Nu med þvi, ad Moses er eirn Logmaals Lærare, þa hlijtur hann med sijnum Logmaals-Nuninge og Jafnligu Ad-hallde ad audsyna þad; Hversu Logmaals Verkinn eru so sem onnur Naudungar-Verk, og Mæda, og þreyta Folked, so leinge, og þar til ad þad medgeingur sinn Siukdom, og Leida Logmaalsens, og flyr til Naadarinnar, so sem nu skal sagt verda.

J Þridiu Grein er þetta su rietta Meining og aastundan Moses, ad hann fyrer Logmaaled opinbere Syndena, og ad Vanvirdu giore allt Offtæke Mannlegs Megns og Maattar. Hier fyrer nefner S. Paall hann Gal. 2. Þionustu-Mann Syndarinnar, og hans Embætte kallar hann Daudans Embætte, 2 Cor: 3 og til Rom: 3 og 7. seger hann; Fyrer Logmaaled kemur ecke annad utann þad, ad Menn þeckia Syndena, og til Rom: 3. Fyrer Logmaalsens Verk verdur Einginn Riettlaatur fyrer GUde. Þviad Moses getur ecke neitt framar giort, med sijnu Logmaale, utann þad, ad syna Hvad Menn eiga ad giora og ecke ad giora, enn Krapt og Maatt til ad giora þad sama, eda laata þad O-giort, veiter hann ecke, nie gefur neinum, og skilst so þar vid oss nidur sockna i Syndernar. Og sem ad vier nu erum so i Syndena nidursockter, þa kemur Daudinn jafnsnart og fellur yfer oss, so sem Hefnd og Refsing Syndanna. Hier fyrer kallar S. Paall Syndena Brodd Daudans, af þvi, ad fyrer Syndena hefur Daudinn sinn allann Riett, Magt og Valld yfer oss, enn ef ad Logmaaled være ecke, þa være og einginn Syndenn. Þar fyrer hefur Mosis Embætte alla Skulldena, hann uppvekur og straffar Syndena fyrer Logmaaled, jafnsnart þar a epter kemur Daudinn, med allre Magt, so ad Mosis Embætte er med Riettu af S: Paale kallad Embætte Syndarinnar og Daudans. Þviad hans Logmaal ablar oss einskis annars utann Syndarinnar og Daudans. Enn allt ad einu, þa er þetta Embætte Syndarinnar og Daudans gott, og miog naudsynlegt, þviad Hvar ecke er Guds Logmaal, þar er giorvoll Mannleg Skinseme so blindud, ad hun kann ecke ad þeckia Syndena. Þviad Einginn Mannleg Skinseme veit, nie skiniar þad, ad Vantru og Orvinglan sie Synd, Jaa, hun veit ecke af þvi Par, ad Menn eiga Gude ad trua og treysta, geingur so framm Stein-blind og Athugalaus, og verdur alldrei vor vid slijkar Synder, enn gierer þo jafnframme med nockur good Verk, og lifer sidsamlega fyrer Manna Augum, þa hyggur hun sig oa riettre Gotu ganga, og ad hun hafe þa fulla Nægiu giort sinne Kallau. So sem vier siaaum oa Dæmum Heidinna Manna og Hræsnaranna, þa þeir hyggiast ad lifa sem Heilaglegast. Item Skinseminn hun veit ecke, ad Gyrnd Holldsens og Hatur til sinna Ovina sie Synd, helldur med þvi hun sier og formerker, ad Aller Menn eru so sinnader, þa helldur hun slijkt ad vera naatturligann og goodann Hlut, og hyggur þad nægiast, ef Madur getur spornad vid þeim Ytre Glæpum, og svo geingur hun framm

Athuga-

Athugalaus, og virder Veikleik sinn fyrer Styrk, Synd sijna fyrer Riettlæte, Illsku sina fyrer Godsemd, og kemst ecke leingra aframm. Sioa! Þennann Blindleika og slijkt Hardudugt Ofstæke burt at drijfa, þa er Moses Embætte og Þionusta mieg nytsamleg. Nu kann hann ecke ad burt drijfa þennann Ofstækes Blindleika, nema þvi ad eins hann giore hañ aadur fyrr kunnañ og opinnberann, Þetta giører hañ med Logmaalenu, og fyrer Logmaaled, þa hann kienner, ad Menn skule ottast GUD, treysta Honum og trua, og elska Hann yfer alla Hlute, þar med, ad hafa aungva vonda Gyrnd, nie Hatur a nockrum Manne. Nær Naatturleg Skinseme heyrer nu þetta riettilega, þa blijtur hun ad skielfast, þviad hun finnur med sialfre sier Hverke Tru nie Traust til Guds, og eige helldur Otta nie Elsku Guds, ecke Kiærleikann, nie Hreinferdugleik Hiartans til Naungans, helldur Vantru, Efaseme, Fyrer-Litning og Hatur til Guds, og Illann Vilia og Heiptar-Hug til Naungans, Nær ed Naatturleg Skinseme finnur slijkt, þa er Daudinn þar þegar, fyrer Augum, og vill svelgia slijkann Syndara, og fleygia honum ofann i Helvijte.

Sioa þu! Þetta kallast, ad Daudinn veite oss aadaas og Yferfall fyrer Syndena, og deyde oss fyrer Syndena, Þetta er og þad, ad uppvekia Syndena fyrer Logmaaled, og setia hana oss fyrer Sioner, og allt vort Of-Traust og Ofstæke ad giora ad Hrædslu, Skielfing og Ørvinglan, so Madurinn kann eckert annad, enn ad kalla upp med Spaa-Mannenum; Eg em burt kastadur fra þijnum Augum! edur so sem Menn plaga ad segia. Eg em Diøfulsins, eg kann alldrei Saaluholpinn ad verda! Slijkt kallast med Riettu ad vera leiddur til Helvijtes, þetta meinar S. Paall med sinum Ordum, þar hann seger 1 Cor: 15, Broddur Daudans er Syndenn, enn Logmaaled er Kraptur Syndarinnar. Sem villde hann so segia, þad Daudinn stijngur oss og drepur, þad giorer Syndenn su sem med oss fundinn verdur, hun giorer oss seka Daudans, enn Þad, ad Syndenn verdur med oss fundinn, og so kroptuglega gefur oss Daudanum i Valld, Þvi velldur Logmaaled, hvert ed opinnberar oss Syndena, og lærer oss ad þeckia hana, vier sem aadur fyrre þecktum hana ecke, og lifdum athugalauser.

Sioa þu nu! Hversu hardlega og streingelega ad Moses hann frammfilger slijku sijnu Embætte, þviad uppa þad, ad hann sem allra-mest skamme og ad Vanvirdu giore naatturlega Skinseme, þa setur hann ecke ad eins slijkt Logmaal, sem talar um þa Hlute hverier i sannre Raun og af Naatturunne til eru Synd, so sem ad eru þau Tiju Bod-Ordenn, helldur giorer hann þar Synd sem Raunar einginn Synd er, þreyngiande so og nidur þrickiande hana med Offa-þungre Synda-Byrde. Þviad Vantruann og vond Gyrnd er af sier sialfu til Synd, og Daudans Verdugt. Enn ad eta surt Braud um Paska-Haatijdena, og ad eta nockurt Dyr obreint, ad giora nockurt Teikn a sijnu Holldе, og allt þad annad sem sa Levitanna Kiennemannskapur helldur fyrer Synd, þad er ecke af Naatturunne Synd, nie Illt, helldur verdur þad Synd, alleinasta þess vegna, af þvi ad þad er fyrer Logmaaled fyrer-boded, hvert Logmaal vel maa afteked verda, enn þau Tiju Bod Ordenn meiga ecke so aftakast, þviad þo þau være ecke til, edur þo Menn visse ecke af þeim, þa er þad þo samt Synd. So sem þetta, Heidinna Manna Vantru er Synd, þo þeir vite ecke þar af, nie skeite þarum ad þad sie Synd.

Svo siaaum vier nu, ad Slijkt og So margfalldt Logmaal Mosis er ecke ad eins þar fyrer ut gefed, ad einginn skule þurfa ad utvelia nockud Gott Verk, og ad lifa Vel, svo sem fyrr er um talad, helldur miklu framar fyrer þa Skulld, ad Syndernar skylldu verda þess fleyre, og samanhrugast sem mest, til þess, ad þyngia Samvitskuna, so ad þad

 Forblin-

Forblindada Ofstæke yrde ad þeckia sig sialft, og finna sialfs siins eiginnlegann Veikleika og Vanmaatt til hins Gooda, og ad þvi yrde so þreyngt og naudgad, til ad leita epter þvi sem frekara er helldur enn Logmaaled og eiginnleger Kraptar, Einkum sem er, epter Guds Naad, Su sem fyrerheitinn er i Christo, þeim ed koma skyllde. Þviad allt Logmaal Guds er Gott og Riett, jafnvel þo ad þad skipade ad bera Myke, eda taka upp Gras-Straa, enn Sa kann ecke ad vera frömur og godhiartadur, hver ed slijkt so aagiætlegt Logmaal ecke helldur, edur þad helldur naudugur. So megnar nu vor Naattura eckert annad enn ad hlijda naudug, þar fyrer hlijtur hun af Guds goodu Logmaale, ad þeckia og vidurkienna Illsku sijna, og ad laata sig af Hiartans Andvarpan epterlanga og leita ad Hialp Guddomlegrar Naadar i Christo.

Þar fyrer, þegar Christur nu kemur, þar linner Logmaalenu, sierdeilis þui Levitiska Logmaale, hvert ed þar giorer Synd sem annars einginn Synd er, so sem vier aadur sogdum, þar hafa og so þau Tiju Bodordinn Enda, eige so, ad Menn skule ei hallda þau og uppsylla þau, helldur hefur Moyses Embætte j þeim eirn Enda, so ad þad eykur ecke þadann j fra, fyrer Bodordinn, Magt Syndarinnar, og Syndenn er þa ecke leingur Broddur Daudans, þviad Syndenn er fyrer Christum fyrergefinn, og Madur er saattur vid Gud, og Hiartad tekur til ad hafa aast a Logmaalenu, so ad Moyses Embætte kann ecke upp þadann ad straffa Hiartad, nie aavijta þad um Syndena, so sem ad hefde þad ecke Logmaaled hallded, og sie þar fyrer Dauda verdugt, so sem þad giorde fyrer Naadena, og aadur enn Christus kom.

Þetta kienner S. Paall 2 Cor. 3. þar hann seger, Ad Biartleikenn aasionunnar Moysis hafe Enda, fyrer Sokum Biartleika aasionunnar JEsu Christi, þad er, Embætted Moysis, hvert ad oss giorer ad Synd og Skomm, med Biartleik Vidurkienningar vorrar eigennlegrar Illsku og Hreckvijse, þad giorer oss framar ecke neina Kvol, og skielfer oss ecke leingur med Daudans Grimmd. Þviad vier hofum nu Biartleikann j aasionunne Christi, þad er Embætte Naadarinnar, fyrer hvert vier þeckium Christum, med hvers Riettlæte, Lijfe og Stirk, vier uppfyllum Logmaaled, og yfervinnum Daudann og Helvijte. So sem og eirninn þeir Prijr Postular a Fiallenu Thabor saau Moysen og Eliam, enn hræddust þa þo ecke, vegna þess aastudlega Biartleika j Andlitenu Christi. Enn 2 Mos. B. 34. Cap: þa Christur var ecke naalægur, þar gaatu Israels Syner ecke lited Biartleik aasionunnar Moyses, þar fyrer hlaut hann ad laata Hulldu fyrer hana.

Þviad Logmaalsens Læresveinar eru med þremur Haattum, þeir Firstu eru þeir, sem ad Logmaaled heyra, enn fyrerlijta þad og forsmaa, og lifa athugalauser, og Ogudlega, Til þessara kiemur Logmaaled ecke, og þesser merkiast fyrer þa Dijrdkunar-Menn Gull-Kaalfsens j Eydemorkunne, hverra vegna Moses braut Stein-Toblurnar j sundur, og bar ecke Logmaaled til þeirra.

Þeir eru Adrer sem bera sig ad ad upfylla Logmaaled, af Eiginnlegum Krapte og Mætte, Þesser merkiast fyrer þa sem ecke gaatu lited j aasionu Moysis, þa hann kom aptur j annad Sinn med Toblunnar, Til þessara kiemur ad vijsu Logmaaled, enn þeir faa þad ecke lided, þar fyrer laata þeir Hulldu fyrer þad, og lifa sem Hræsnarar, epter Ytre Verkum Logmaalsens, hvad allt samann ad Logmaaled giorer þo til Syndar, og fordæmer þad, þegar Huldann verdur fraatekinn, þviad Logmaaled bevijsar þad, ad vor Maattur, og Megn vort, er einskis verdt, og Eckert aan Naadarinnar Christi.

Þeir

Þeir Þridiu eru þeir, sem klaarlega sioa Moysen under Augunn, þad eru þeir sem underſtanda Meiningu Logmaalſens, Hverſu ad þad krefur Omogulegra Hluta, Hier hefur Syndinn ſinn Krapt, hier er Daudinn megtugur, hier er Goliaths Spiot-Skapt ſo ſtort ſem Veſtar Rifur, og hans Spiots-Falur vegur Sex Hundrud Siclos, ſo ad aller Syner Jſraels ſlya og hrædaſt hann, ad ſvoateknum Einaſta David, Chriſto DROttne Vorum, Hann frelſar oſs fraa ollu þeſſu. Þviad nema ſo ſie, ad Chriſti Biartleike lijſe jafnframt Biartleika Moyſis, þa feinge Einginn lided þeſſa Logmaalſens Birte, nie Skielſing Syndarinnar og Daudans. Þeſſer falla aller fra Verkunum, og þeirra Metnadar Offſtæke, og læra ecke annad af Logmaalenu, enn ad þeckia og vidurkienna ſijna Synd, og andvarpa, og laata ſig laanga epter Chriſto, hvad hid ſama ad er Eiginnlegt Embætte Moſis, og Logmaalſins Art og Edle.

So hefur og Moſes ſialfur aaviiſad, ad ſitt Embætte, og ſijn Kienning ſkyllde vara allt til Chriſtum, og hafa þa eirn Enda, þar hann ſeger Deut: 18. Eirn Spaa-Mann mun Drottinn Þinn GUd uppvekia þier, utaf Brædrum þijnum, ſo ſem mig, Honum ſkalltu hlijda. &c: &c: Þetta er þad Allra-aagiætaſta Ord, og Sannlega Mergur og Kiarne ur Ollum Bookum Moſis, hvern ed Poſtularner mikels virdt hafa, og hafa þad frammbored ſo ſem annann Oflugann Vitnesburd, til Stirkingar Evangelio, og ad aftaka Logmaaled þar med, og aller Spaa-Mennerner hafa miog mikla Speke af þeſſare Grein teked. Þviad, med þvi ad hann fyrerheiter hier Odrum Spaa-Manne, hverium þeir ſkulu hlijda, þa epterfilger þad O-ſagd, ad Hann hlijtur Annann Lærdom ad kienna, enn ſem Moſes hefur kiennt, fyrer hverium Moſes hlijtur ad vijkia, og honum gefa ſinn Riett, ſo ad hinn Annar Spaa-Madur ſkule heyraſt. Nu kann Sa Spaa-Madur ecke ad kienna Logmaaled, þviad þad hefur Moſes algiorlega giort, ſo þar er einginn Þorf aa þvi, vegna Logmaalſens neirn annann Spaa-Mann upp ad vekia, þar fyrer talar þeſſe Grein Viſſulega um Naadarinnar Lærdom, og um Chriſtum.

Þar fyrer kallar S: Paall Moſis Logmaal hid Gamla Teſtamentum, ſo giorde og Chriſtus, þa ed Hann innſette þad Nija Teſtamentum. Og er fyrer þa Grein eitt Teſtamentum, ad GUd fyrerhiet þar inne ad gefa ſijnu Folke Jſrael Landed Canaan, ef ad þeir hiellde Hans Teſtamentum, og Hann gaf þeim þad Land, og þetta Teſtamentum ſtirkteſt og ſtadfeſteſt med Bloode Sauda og Hafra. Enn af þvi, ad ſlijkt Teſtamentum var ecke komed under Naad Guds, helldur under Verkum Mannanna, þa hlaut þad ad fyrnaſt og Enda ad taka, og þad Fyrerheitna Land vard ad miſſaſt aptur, þviad Logmaaled kann Ecke fyrer Verkenn upp ad fyllaſt, þar fyrer loa Magt aa, ad þar kiæme eitt Annad Teſtamentum, hvert ed ecke yrde gamallt, og ecke være komed under vorum Verkum, helldur under Guds Orde, uppa þad, ad þad mætte vara Eylijflega, þar fyrer er þad ſtadfeſt fyrer Dauda og Blood eirnrar Eylijfar Perſonu, og eitt Eylijft Land fyrerheited og gefed. Þetta læt eg talad vera um Bækur og Embætte Moſis!

Hvad eru nu þa hinar adrar Bækur Spaa-Mannanna og Fraſagnanna? Andſvar. Eckert annad enn þad Moſes ſialfur er, þviad Aller hafa þeir, og frammfilgia, ſama Embætte og Moſes, ſtanda i moote Fals-Prophetum, ſo þeir leide ecke Folked til Verkanna, helldur laate þad blijfa vid Moſis Rietta Embætte og Vidur-Kienningu Logmaalſens, og þvi filgia þeir faſt framm, ad þeir, fyrer riettann Skilning og Underſtodu Logmaalſens, faae Monnum hallded i Vidurkenningu þeirra eiginnlegs Veikleika, og reka þa til Chriſtum, ſo ſem og eirninn Moſes giorer, þar fyrer utſkijra þeir enn framar allt

þad

þad sem Moses hefur kiennt ut af Christo, og frammsetia hverutveggia Dæme, bæde þeirra sem Mosen hafa riettelega, og hinna sem hann hafa ecke riettelega, og hvertveggiu þeirra Laun og Refsijngar. So ad Spaa-Mennerner eru ecke annad enn Pienarar og Vitnes-Menn Mosis og hans Embættes, svo ad þeir fꝏe leidt alla Menn til Christum fyrer Logmꝏled.

J Sijdarsta Mꝏata þa ætta eg ad aavijsa nockud um þær Allegorias, þad er, Andlegar Utþijdingar, þær ed frammsettar eru fyrer þad Levitiska Logmꝏl, og Kienne-Mannskap Mosis, enn þad vill vera oflangt Mꝏl, þad alltsamann ad skrifa, þad vill og hafa Tijma, og verdur betur med Lifande Raust utskijrt. Þviad Saũlega er Moyses eirn Uppsprettu Brunnur Allrar Speke og Skilnings, af hverium upp er sprotted Allt þad sem Spaamennerner hafa vitad og kiennt, þar ad auk þa er þad Nya Testamented þadann upprunned, og j þeim sama Uppsprettu Brunne grundvallad, so sem vier nu heyrt hofum. Enn so ad eg eina litla og stutta aavijsan giefe þeim sem Gꝏsu og Skilning hafa þar til, ad hugsa þar betur og frekar epter, þa vil eg nu ad Sinne svo miked segia.

Ef þu villt Vel og Ohræddur fara med þær Allegorias, og utleggia þetta, þa tak Christum þier fyrer Hendur, þviad Hann er Sa Madurinn, uppa hvorn þetta alltsamann olldunges hliodar, þar fyrer lꝏt þann Ædsta Kiennemann Aaron aungvann annann merkia, utann alleinasta Christum, svo sem Pistillinn til Ebreos giorer, hver ed nꝏlegá einsamall fullnæger allar Allegorias og Figurur Moysis ut ad þyda, So er og þad vissulega vijst, ad Christur sialfur Hann er Fornenn, Hann er Alltared, hver ed sig sialfann med sijnu Blode fornsærde, so sem Sa same Pistill um talar. So sem ad nu þesse Ædste Levitiske Kiennemadur fyrer slijkar Fornfæringar burt tok og forlijkte þær giordar Synder, sem af sinne Nꝏtturu til voru ecke Synder, So hefur Vor Ædste Kiennemadur Christur, fyrer Sialfs sijns Offur og Fornfæring sijns Blods, þa sannarlegu Synd, hver ed af Nꝏtturunne er ein hrædelig Synd, hana hefur hann burt teked, og er eitt Sinn inn um Fortialdded j þad Sancta Sanctorum, inn fyrer Gud geingenn, ad Fridþægia og Forlijka oss. Med þessum Hætte skalltu allt þad sem skrifad er um þann Ædsta Kiennemann, utleggia og þyda, uppa Christi Personu, og uppa aungvann annann. Enn Syner þess Ædsta Kiennemanns, sem umgeingust med þær daglegu Fornfæringar, þa skalltu lꝏta merkia oss Christna, Vier sem ad sitium fyrer vorum Fodur Christo j Himnenum, enn buum hier a Jordu med Lijkamanum, og erum ecke enn þangad komner til Hans, utann med Trunne Andlega. Þeirra Embætte, ad Slꝏtra og Offra, þad merker eckert annad enn ad predika Evangelium, fyrer hvert ad Sa Gamle Madurinn deydest og fornfærest Gude, og verdur fyrer Kiærleiksens Elld, j Heilogum Anda, steiktur og brenndur, til eins Sætleiks Ilms fyrer Gude, þad er, Evangelium verkar eina Goda, Hreina, Ohrædda Samvitsku fyrer Gude. Til þessarar Utleggingar meinar S. Pꝏll Rom: 12. þar ed hann kienner oss ad Fornfæra Lijkame vora Gude, til eins Lifanda, Heilags, og Þægelegs Offurs, hvad hid sama vier giorum (svo sem sagt er) med Jafnadarsamre Jdkan Evangelii, bæde med Predikan, og so eirninn med Trunne. Þesse Stutt Tilvijsan og aaminning mꝏa nu ad Sinne nægiast,

Hvornenn epter Christo og Evangelio leita skal j þvi Hinu Gamla Testamentenu!

)o(

Gene-



# Geneſis.

# Firſta Bok Moſes.

## I. Capitule.

Um Skøpun allra Hluta ꜳ Sex Døgum.



* Upphafe ſkapade GUd Himen og Jørd.

*Ebr. 11, 3. Joh. 1. 1,2.3.

2. Og Jordenn var eyde og toom, og Mirkur var yfer Underdiupenu, Og GUds Ande færdeſt yfer Votnenn.

3. Og GUd ſagde, Verde Lios, Og þar vard Lios.

4. Og GUd ſꜳ ad Lioſed var gott, Pa ſkilde GUd Lioſed fra Mirkrunum.

5. Og kallade Lioſed, Dag, enn Mirkred, Nott, Pa vard af Kvollde og Morgne ſa Firſte Dagur.

6. Og GUd ſagde, Par verde ein * Feſting ꜳ mille Vatnanna, ſem j ſundur ſkal ſkilia Votnenn hvør fra ødrum.

* 2 Pet. 3, 5.

7. Pa giørde GUd eina Feſting, og ſkilde Vøtnenn ſem voru under Feſtingunne. Og þad ſkiede ſo.

8. Og GUd kallade Feſtingena Himen, Pa vard ut af Kvøllde og Morgne ſa Annar Dagur.

9. Og GUd ſagde, Safneſt Vøtnenn under Himnenum j eirn ſtad, ſo ad ſiꜳſt meige þurt Land. Og þad ſkiede ſo.

10. Og GUd kallade Purrlended Jørd, og ſamanſafnan Vatnanna kallade hann Siø. Og GUd ſꜳ ad þad var gott.

11. Og GUd ſagde, Lꜳte Jordenn af ſier uppvaxa græn Grøs og Jurter, hafande Sæde j ſier og Avaxtarſøm Trie, ſo ad hvørt bere Avøxt epter ſinne Tegund, og hafe ſitt eiged Sæde j ſier ſialfu ꜳ Jordunne. Og þad ſkiede ſo.

12. Og Jordenn frammleidde af ſier græn Grøs og Jurter, hafande Sæde, hvørt epter ſinne Tegund, og ꜳvaxtarſøm Trie, hafande ſijn eigenn Sæde med ſialfum ſier, hvørt epter ſinne Tegund. Og GUd ſꜳ ad þad var gott.

13. Pa vard ut af Kvøllde og Morgne ſꜳ Pridie Dagur.

14. Og GUd ſagde, Verde Lios a Feſtingu Himenſins, ſo þau ſkilie Dagenn fra Nottenne, og giefe Teikn Tijma, Daga og Aar.

15. Og Lyſe a Feſtingarhimne, ſo þau upplyſe Jørdena, og þad ſkiede ſo.

16. Og GUd giørde Tvø ſtor Lios, Pad ſtærra Lioſid ad ſtiorna Deigenum, og þad minna Lioſed ad ſtiorna Nottenne, þar ad auk Stiørnur.

17. Og GUd ſette þær a Feſtingar-Himenenn, ſo ad þær ſkyllde ſkijna a Jørdena.

18. Og ſtiorna Deigenum og Nottenne, og ad ſundurgreina Lioſed og Mirkred. Og GUd ſꜳ ad þad var gott.

19. Og þar vard af Kvøllde og Morgne ſa Fiorde Dagur.

20. Og GUd ſagde, Vøtnenn frammleide af ſier hræranleg og lifande Kvikende,

og Fugla sem fliuga skulu a Jordunne under Himensins Festingu.

21. Og GUD skapade stora Hvalfiska og allshꝍattud hræranlig og lifande Kvikinde, sem Votnenn gꝍafu af sier, sierhvort epter sinne tegund, og allskins fiadrada Fugla, sierhvoria epter sinne tegund.

22. Og GUd sꝍa ad þad var gott. Og GUd blessade þa og sagde, Aukest og margfalldest, og upfylled Votnenn Siꝍafarins, og Fuglarner margfalldest a Jordenne.

23. Pa vard af Kvollde og Morgne sa Fimmte Dagur.

24. Og GUd sagde, Jordenn frammleide Lifande Kvikende, sierhvort epter sinne Tegund, Fienad, Skridkvikende, og Skogdyr Jardar, hvort epter sinne Tegund. Og þad skiede so.

25. Og GUd skapade Skogdyr Jardarennar, hvort epter sinne Tegund, og so Fienadenn epter sinne Tegund, og allskins Skridkvikende Jardar, epter sinne Tegund. Og GUd sꝍa ad þad var gott.

26. Og GUd sagde, Vier vilium giora Mannenn, epter Mind og Lijking vorre, hvor ed Drottna skal yfer Fiskum Siꝍafarins, og yfer Fuglum Loptsins, og yfer Fienadenum, og yfer allre Jordunne, og yfer ollum Skridkvikendum sem hræˈrast a Jordunne.

27. Og GUd skapade Mannenn, *epter sinne Mind, epter GUds Mind skapade hann hann, Og hann skapade þau ** Karlmann og Kvinnu. * 1 Cor. 11, 7.

** Matth. 9, 4. Marc. 10, 6. 1 Tim. 2, 13.

28. Og GUd blessade þau, og sagde til þeirra, aukest þid og margfalldest, og uppfylled Jordena, og giored hana ydur undergiefna, og drottned yfer Fiskum Siꝍafarins, og yfer Fuglum Loptsins, og yfer ollum Dyrum sem hræˈrast a Jordunne.

29. Og GUd sagde, Siꝍaed, Allshꝍattadar Jurter sem giefa Sæde af sier a allre Jordunne, og allra handa Avaxtarsom Trie sem giefa Sæde af sier, gief eg ydur til Fædslu.

30. Og ollum Dyrum Jardarennar, og ollum Fuglum Loptsins, og ollum Skridkvikendum sem lifa a Jordu, ad þau ete allskins grænar Jurter. Og þad skiede so.

31. Og GUd sꝍa alla Hlute þa sem hann hafde giort, Og sioa, þeir voru hardla goder. Pa þar vard af Kvollde og Morgne sa Siette Dagur.

## II. Capitule.

(I) Hvijldardagurinn. (II) Þeir hellstu og verulegar Partar Mannsins; (III) Paradijsar alldengardur; (IV) Guds Bodord; (V) Hiona Band ed.

I. Þannen algiørdest nu Himen og Jord, og allur þeirra Her.

2. Og so fullkomnade GUd a þeim Siounda Deige sijn Verk, sem hann giorde. Og * hvijldest þann Siounda Dag, af ollu sijnu Verke, sem hann giort hafde. * Ebr. 4, 4.

3. Og hann blessade þann Siounda Dag, og helgade hann, af þvi ad hann hvijldest a þeim sama Deige af ollum sijnum Verkum, sem GUd skapade og giorde.

II. 4. Þannen vard nu Himenenn og Jordenn, þa þau voru skopud, A þeim Tijma, þa GUd DROttenn giorde Jordena og Himenenn.

5. Og allra handa Trie a Morkenne sem ecke voru ꝍadur fyrre a Jordunne, Og allra handa Jurter a Akrenum sem ecke uxu ꝍadur fyrre. Þviad DROTTenn GUd hafde þa enn ecke lꝍated rigna a Jordena, og þar var eingenn Madur sem Jordena fꝍagade med sijnu Erfide.

6. Enn þar gieck upp ein Þoka af Jordunne, og vokvade alla Jordena.

7. Og GUd DROTTENN giorde Mannenn af Jardar Leire, og blies einum lifande Anda j hans Naser, Og so * vard Madurenn ad Lifande Sꝍalu.

* 1 Cor. 15, v. 45.

III. 8. Og GUd DROTTenn plantade einn Alldingard j Eden, a moote Austre, og

sette

sette Mannenn þangad, hvorn hann hafde skapad.

9. Og GUD Drottenn liet upp vaxa af Jordunne allra Handa Trie, sem fogur voru ad sia, og listeleg ad eta, og Lijfsins Trie j midium Alldengardenum, og þad Skilnings Tre Goods og Jlls.

10. Og þar rann ein mikel Uppspretta ut af Eden til ad vokva Alldingardenn, og svo Uppspretta skiptest þadan j Fiogur stor Vatnsfoll.

11. Þad firsta heiter Pison, þad fellur um allt Landed Hevila, og þar finnst Gull.

12. Og Gulled þess Lands er forkostulegt, og þar finnst Bedellium og Gimsteirnenn Onyx.

13. Þad annad Vatnsfalled heiter Gihon, þad fellur um allt Morland.

14. Hid þridia Vatnsfalled heiter Hidekel, þad fellur framm hia Assyria. Þad Fiorda vatnsfalled er Phrath.

IV. 15. Og DROTTenn GUD tok Mannenn, og sette hann j þann Alldingard Eden, ad hann skyllde Jrkia hann og vardveita.

16. Og GUD DROTTenn baud Mannenum og sagde, Þu skallt eta af allra handa Triꜳm j Alldengardenum.

17. Enn af þvi Skilnings Trie goods og jlls skalltu ecke eta, Þviad a hvorium Deige sem þu etur af þvi, þa skalltu Dauda deya.

V. 18. Og DROTTenn GUD sagde, Þad er ei gott ad Madurenn sie einsamann, Eg vil giöra honum eina Medhiꜳlp, þa sem vera mꜳ hiꜳ honum.

19. Þviad þa GUD Drottenn hafde skapad af Jordunne allra handa Dyr a Morkenne, og allskins Fugla under Himnenum, þa leidde hann þau til Adams, so hann sæe hvad hann villde nefna þau, Þviad hvad hellst Nafn sem Madurenn giæfe ollum lifande Kvikendum, þa skylldu þau so heita.

20. So gaf Madurenn allra Handa Fienade, og Fuglum Loptsins, og so allra handa Dyrum a Jordunne, sierhvoriu sitt Nafn. Enn þar fannst eingenn Medhiꜳlp fyrer Mannenn, sem vera mætte hiꜳ honum.

21. Þa liet GUD DROttenn fastann Svefn falla yfer Mannenn, og þa hann svaf, tok hann eitt af hans Rifium, og byrgde aptur med Hollde.

22. Og GUD Drottenn * uppbiggde eina Kvinnu af Rifbeine þvi sem hann tok af Mannenum, og leidde hana til hans.

* 1 Cor. 11, 8, 9.

23. Þa sagde Madurenn, Þetta er Bein af mijnum Beinum, og Holld af mijnu Hollde, þar fyrer skal hun Karlinna kallast, af þvi hun er af Karlmanne tekenn.

24. Og * þess vegna skal Madurenn yfergiefa Fodur sinn og Moodur sijna, og halldast vid sijna eigenn Konu, og þau tvo skulu vera eitt Holld.

* Matth. 19, 5. Marc. 10, 7. Eph. 5, 31. 1 Cor. 6, 16.

25. Og þau voru bæde nakenn Adam og hans Kvinna, og (a) skommudust sijn ecke.

(a) Þurftu sijn ecke ad skammast.

## III. Capitule.

(I) Adam og Eva syndga; (II) Mæta Straffe, og fꜳ Huggun med Fyrerheite um Messias.

I. Og Hoggormurenn var slægare helldur enn oll onnur Kvikende a Jordunne, sem GUD DROTTenn hafde skapad, Og hann sagde til Kvinnunnar, Jꜳ, skylde GUD hafa sagt, Þid skulud ecke eta af allskins Triꜳm j Alldengardenum?

2. Þa sagde Konann til Hoggormsins, Vid etum af ꜳvexte Triꜳnna j Alldingardenum.

3. Enn um Avoxt þess Tries sem stendur j midium Alldengardenum þa sagde GUD, Eted ecke þar af, og komed ecke vid þad, so ad þid kannskie deyed ecke.

4. Þa * sagde Hoggormurenn til Kvinnunnar, Jongvann mꜳta munud þid Dauda deya. * 2 Cor. 11, 3.

5. Helldur veit GUD þad, ad a hvorium Deige sem þid eted þar af, þa munu yckar Augu opnast, og þid munud vera lijka sem GUD, og vita Skin Gods og Jlls.

6. Og Kvinnann sꜳ ad Tried var gott

ad eta af, og fagurt ad sioa, og eitt gyrnelegt Trie til froodleiks. Og * hun tok af Avextenum og oat, og gaf sijnum Manne þar af, Og hann oat. * 1 Tim. 2, v. 14.

7. Pa upplukust beggia þeirra Augu, og formerktu þau ad þau voru nakenn, Og þau festu saman Fijkiuvidar Blod, og giordu sier af Laufkyrtla.

II. 8. Og þa er þau heyrdu GUds DRottins Rodd, sem gierk umkring j Alldingardenum, þa Dagurenn var ordenn svalur, þa falde Adam sig og hans Kvinna fyrer Auglite GUds DROTtins, a mille Trioanna j Alldingardinum.

9. Og GUD DROTtinn kallade a Adam og sagde til hans, Hvar ertu?

10. Hann svarade, Eg heyrde þijna Rodd j Alldingardenum, og eg hræddunst, þvi eg var nakenn, Og af þvi falda eg mig.

11. Og hann sagde, Hvor sagde þier ad þu værer nakenn? Hefur þu ecke eted af þvi Trie sem eg bannade þier ad eta af?

12. Pa svarade Adam, Kvinnann su sem þu gafst mier til samlags, hun gaf mier af Trienu, og eg oat.

13. Pa sagde GUD DROTTenn til Kvinnunnar, Pvi giorder þu þad? Kvinnann svarade, Hoggormurenn sveik mig, so ad eg oat.

14 Pa sagde GUD DROTtenn til Hoggormsins, Af þvi ad þu giorder þetta, þa vert þu bolvadur a medal allra Kvikenda, og a medal allra Dyra a Jordu, þu skallt ganga a þijnum Kvide, og eta Molld Jardar alla þijna Lijfdaga.

15. Og eg vil setia Ovinskap a mille þijn og Kvinnunnar, og a mille þijns Sædis og * hennar Sædis, Pad ** sama skal j sundur meria þitt Hofud, Og þu skallt bijta hann j Hælenn. *Gal. 3, 16. ** 1 Joh. 3, 8.

16. Og hann sagde til Kvinnunnar, Eg vil tilskicka þier miklar Eymder, þegar þu verdur oliett, þa skalltu fæda þijn Born med Sott, og þinn Vilie skal vera þijnum Manne undergiefenn, og * hann skal vera þinn Herra. * 1 Cor. 14, 34. 1 Tim. 2, 12.

17. Og til Adams sagde hann, Sokum þess þu hlijdder Roddu Konu þinnar, og oatst af þvi Trie af hvoriu eg baud þier, ad þu skyllder ecke eta af, þa skal Jordenn vera bolvud fyrer þijna skulld, med Mædu skalltu þig af henne næra alla þijna Lijfdaga.

18. Pyrna og Pisla skal hun bera þier, og þu skallt eta Gros Jardarennar.

19. J þijns Andlits Sveita skalltu neyta þijns Brauds, þangad til þu verdur ad Jordu aptur, af hvorre þu ert tekenn, Pviad þu ert Jord, og * þu skallt ad Jordu aptur verda. * 1 Cor. 15, 21, 22.

20. Og Adam nefnde sijna Kvinnu Heva, þviad hun er allra Lifendra Moder.

21. Og GUD DROTtenn giorde Adam og hans Kvinnu Skinnkyrtla, og iklædde þau þeim.

22. Og GUD DROTTENN sagde, Sioaed, Adam er ordenn so sem einn af oss, og veit bæde gott og illt. Enn uppa þad hann ecke skal utrietta sijna Hond, og taka af þvi Lijfsins Trie, og eta og lifa eylijflega.

23. Pa liet GUD DROTTENN hann burt ur þeim Alldeingarde Eden, so ad hann skyllde eria Jordena, af hvorre hann var tekeñ.

24. Hann rak Adam burt, og sette Cherubim fyrer Alldengardenn Eden, med eitt naked sveipande Sverd, til ad geyma Veigenn (sem liggur) til Lijfsins Tries.

## IV. Capitule.

(I) Cains Brodur-Mord, og (II) Midiar. (III) Seths Fæding.

I. Og Adam kiennde sinnar Kvinnu Evu, Og hun vard oliett, og fædde Kain, og sagde, Eg hefe odlast þann Mann DRottenn.

2. Og hun vard oliett j annad sinn, og fædde hans Brodur Abel. Og Abel vard Saudahirder, Enn Kain vard einn Akurmadur.

3. Og þad skiede so epter stunder lidnar, ad Kain

Kain færde DROTTNE Forner af Avox-
tum Jardar.
4. Abel bar og framm af Frumburde sin-
nar Hiardar, og af þeirra Feite.
5. Og DROTTenn * leit nadarsamlega
til Abels og til hans Fornar, Enn til Kains
og hans Fornar leit hann ecke nadarsamlega.
Pa vard Kain afar-reidur, so ad hans yfer-
bragd afmindadest. * Ebr. 11, 4.
6. Og DROTTenn sagde til Kains, Pvi
ertu so reidur? Og hvar fyrer afmindast so
þitt yferbragd?
7. Er ecke so? Ef þu ert froomur þa ertu
þacknæmur, enn siert þu ecke fromur, þa
hvijlest Syndenn fyrer Dyrum, enn laat þu
hana ecke hafa sinn Vilia, helldur drottna
yfer henne.
8. Pa talade Kain vid Brodur sinn Abel.
Og þad skiede so, þa þeir voru til samans a
Akrenum, ad Kain * reis upp j mote sijnum
Brodur Abel, og slo hann jhel.
* Matth. 23, 5. 1 Joh. 3, 12. Jud. v. 11.
9. Pa mællte DROTTenn til Kain,
Hvar er þinn Broder Abel?
10. Hann svarade, Eg veit ecke, eda a eg
ad vakta mim Brodur? Og hann sagde,
Hvad hefur þu giort? Roddenn þijns Bro-
durs Blods hropar til mijn af Jordunne.
11. Og bolvadur siertu nu a Jordunne,
sem upplauk sijnum Munne, og tok þijns
Brodurs Blood af þinne Hende.
12. Nær þu eriar Jordena, þa skal hun
ecke hier epter giefa þier af sijnum Grooda,
vafande og Landflotta skalltu vera a Jordune.
13. Pa sagde Kain til DROTTins,
Mijn Synd er stærre enn þad hun meige mier
fyrergiefast.
14. Sia, Pu utskufar mier j Dag af
Landenu, og eg hlyt ad fela mig fyrer þijnu
Auglite, og vera so vafande og landflootta
madur a Jordu, þa vill þad mijn verda, ad
hvør mig finnur, hann mun sla mig jhel.
15. Enn DROTTenn sagde til hans, Pad
skal ecke skie, helldur hvør sem Kain jhel slær,
þess skal hefnt verda siofalldlega. Og Drot-
tenn sette eitt einkienningarmark a Kain, ad
eingenn skyllde sla hann jhel, hvør sem hann
finnde.
16. So gieck Kain ut fra Auglite DRot-
tens, og bio j Landenu Nod fyrer austan
Eden.
II. 17. Og Kain kiennde sinnar Kvinnu, og
hun vard oliett, og fædde Hanoch. Og
hann uppbiggde eina Borg, og kallade hana
epter sijns Sonar Nafne Hanoch.
18. Og Hanoch gat Jrad, Jrad gat
Mahuiael, Mahuiael gat Matusael, Matu-
sael gat Lamech.
19. Enn Lamech tok sier tvær Eigennkonur,
ein þeirra hiet Ada, enn onnur Zilla.
20. Og Ada fædde Jabal, Af honum eru
þeir komner sem binggu i Landtielldum og vo-
ru Fiarhirdarar.
21. Og hans Broder hiet Jubal, hann
hoof firstur Manna Horpuslaatt og Organs
leik.
22. Og Zilla vard oliett og fædde Tubal-
kain, hann var hagleiks Madur j allra handa
Koparsmijde og Jaarnsmijde, Tubulkains
Syster hiet Naema.
23. Og Lamech sagde til sinna Kvenna Ada
og Zilla, Pid Lamechs Kvinnur heyred mijn
Ord, og giefed gaum ad þvi eg seige, Eg hefe
jhelsleiged einn Mann mier til aaverka, og eitt
Ungmenne mier til boolgu.
24. Kains skal siosinnum hefnt verda, enn
Lamechs siotijgn og siosinnum.
III. 25. Og Adam kiennde sinnar Kvinnu ad
nyu, og hun fædde einn Son, hann kallade
hun Seth, Pvi GUD hefur (sagde hun) sied
mig, og giefed mier nu annad Sæde j stadenn
Abels, sem Kain slo jhel.
26. Og Seth atte einn Son, hann kal-
lade hann Enos. Og a þeim Tijma hoofu
Menn ad predika ut af Nafne DRottins.

# V. Capitule.

Attartala Forfedranna fra Adam til Noe.

Þesse er Kinkvijslabokenn Mannsins. Þa GUD skapade Manninn, þa giørde hann hann epter GUDs Mind.

2. Og hann skapade þau Karlmann og Kvennmann, og blessade þau, og kallade þeirra Nøfn Manneskiur, a þeim Tijma þa þau voru skøpud.

3. Og * Adam var hundrad og þriatijge ara gamall, og hann gat einn Son epter Mind og Lijking sinne, og kallade hann Seth.

* Luc. 3, 36, 37, 38.

4. Og hann lifde upp fra þvi atta hundrud ar, og atte Sonu og Dætur.

5. So ad allur hans Alldur var Niu hundrud og þriatijger Aara, Og hann andadest.

6. Seth var hundrad og fimm ara gamall þa hann gat Enos.

7. Og hann lifde upp fra þvi atta Hundrud og Sio ar, og atte Sonu og Dætur.

8. So hans allur Alldur vard niju Hundrud og Tolf ar, Og hann andadest.

9. Enos var nijutijger ara gamall, og gat Kenan.

10. Og hann lifde upp fra þvi atta Hundrud og Fimmtan ar, Og atte Sonu og Dætur.

11. So ad hans allur Alldur vard Niju Hundrud og Fimm ar, Og hann andadest.

12. Kenan var Siotijger ara, og gat Mahalaleel.

13. Og hann lifde upp fra þvi atta Hundrud og Fiorutijger ara, og atte Sonu og Dætur.

14. So ad hans allur Alldur vard Niju Hundrud og Tiju ar; Og hann andadest.

15. Mahalaleel var Fimm og Sextijger ara gamall, og gat Jared.

16. Og hann lifde upp fra þvi atta Hundrud og þriatijger ara, og atte Sonu og Dætur.

17. So hans allur Alldur vard atta Hundrud Fimm og Nijutiju ar, Og hann andadest.

18. Jared var Hundrad Sextijger og Tveggia ara gamall, og gat Enoch.

19. Og hann lifde upp fra þvi atta Hundrud ar, og atte Sonu og Dætur.

20. So ad hans allur Alldur vard Niju Hundrud Sextijger og Tvø ar, og hann andadest.

21. Enoch hafde Fimm um Sextugt, og gat Mathusalah.

22. Og epter þad hann hafde gieted Mathusalah, lifde hann gudlegu Lijferne Þriu Hundrud ar, og atte Sonu og Dætur.

23. Og hans allur Alldur vard Þriu Hundrud Fimm og Sextijger ar.

24. Og fyrer søkum þess ad hann lifde so gudlegann Lifnad, þa nam GUD hann j burt, og * hann vard ecke meir siedur.

* Ebr. 11, 5.

25. Mathusalah var Hundrad Sio og attatijger ara gamall, og gat Lamech.

26. Og hann lifde þadan j fra, Sio Hundrud attatijger og Tvø ar, og atte Sonu og Dætur.

27. So ad hans allur Alldur vard Niju Hundrud Niju og Sextijger ar, og hann andadest.

[Mathusala 969. ara andadest a þvi are þa Floded kom.]

28. Lamech hafde Hundrad Tvø og attatijger ara, og gat eirn Son, og nefnde hann Noa, og sagde,

29. Þesse skal hugga oss j vorre armædu og Erfide a Jørdunne, hvørre DROTtenn bølvade.

30. Sijdan þar epter lifde hann Fimm Hundrud Nijutijger og Fimm ar, og atte Sonu og Dætur,

31. So ad hans allur Alldur vard Sio Hundrud Siotijger og Sio ar, og hann andadest.

32. Noe vard Fimmhundrud ara gamall og gat Sem, Cham, og Japhet.

VI. Ca-

## VI. Capitule.

(I) GUD reideſt vondſku mannanna; (II) bodar þeim Synda Floded, og Skipar ad byggia Ørkena.

I. Enn þa er Mennena tok ad fiolga a Jor-
du, og þeir gaatu Dætur,
2. Pa ſaau GUds Børn Mannanna Dæ-
tur, ad þær voru Frijdar, og þeir geingu ad
eiga hvoriar ſem þeir villdu.
3. Pa ſagde Drottenn, Manneſkiann vill
ecke laata ſig ſtraffa framar meir af mijnum
Anda, þviad hun er Holld. Eg vil * enn nu
giefa þeim freſt um Hundrad aar og tuttugu.
* 1 Pet. 3, 20. 2 Pet. 3, 9.
4. A þeim Tijma voru Tyrannar a Jor-
du. Pviad þa GUds Born logduſt med
Dætrum Mannanna, og gaatu Born med
þeim, þa Jukuſt þar af vollduger og Nafn-
kunnuger Menn a Jordunne.
5. Enn þa ed DROttenn ſaa þad, ad
Mannanna Jllſka var mikel a Jordunne, og
ad oll þeirra Hiartans hugſan og aſetningur
var ætijd til jlls eins hneigdur.
6. Pa jdradeſt GUD, þad hann hafde
Mannenn ſkapad a Jordu, og þad angrade
hann j ſijnu Hiarta, og hann ſagde.
7. Eg vil afmaa af Jordu þa Manneſkiu
ſem eg hefe ſkapad, bæde Menn og Fienad,
Skridkvikende og Fugla Loptſins, þviad eg
jdraſt ad eg ſkapade þad.
8. * Enn Noe fann Naad hia DROttne.
* Ebr. 11, 7.
II. 9. Peſſe er Ættkvijſl Noa. Noe var
einn riettlaatur og oſtraffanlegur Madur, og
lifde gudrækelega j ſinne Tijd.
10. Hann gat þria Sonu, Sem, Cham,
Japheth.
11. Enn Jordenn var fordiorfud fyrer
GUds Auglite, og full Naanglætis.
12. Pa leit GUD a Jordena, og ſia þu,
Hun var fordiorfud, þviad allt Holld hafde
fordiarfad ſijna Vegu a Jordunne.
13. Pa mællte GUD vid Noa, Ending
alls Hollds er komenn fyrer mier, þviad Jor-
denn er full Naanglætis af þeim, Sioa þu.
Eg vil fordiarfa þa aſamt med Jordunne.
14. Gior þier eina Ørk af Grenevidar
triaam, og gior ſmaa Hus j henne, og bræd
hana med bik utan og jnnan.
15. Og gior hana ſo, Hun ſkal vera þriu-
hundrud Alna a leingd, Fimmtijger Alna a
breidd, og þriatijger Alna a Hæd.
16. Pu ſkallt og giora einn Glugg ofan
a Ørkenne, einnrar Alnar haafann. Dyr-
nar ſkalltu ſetia utan a hennar ſijdu. Og
hun ſkal hafa þriu lopt, eitt nedſt, annad i
midiu, og þridia efſt.
17. Pviad ſia þu, Eg vil laata koma
eitt Flood Vatna yfer Jordena, til ad dey-
da allt Holld þad ſem Lijfs Anda hefur me-
dur ſier under Himnenum, allt þad ſem a
Jordunne er ſkal fyrerfaraſt.
18. Enn vid þig vil eg giora eitt Saatt-
maal. Og þu ſkallt gaanga j Ørkena, a-
ſamt med þijnum Sonum, þijn Kvinna og
þijnar Sonar Kvinnur.
19. Og þu ſkallt jnnlaata j Ørkena allra
handa Dyr, af ollu Hollde, jaa, eitt Par
af hvoriu, Karlkins og Kvennkins, ad
þau hallde Lijfenu med þier,
20. Af Fuglunum epter þeirra Kine, af
Fienadenum epter hans Kine, og af alls-
haattudum Skridkvikendum Jardar, epter
þeirra Kine. Af þeſſu ollu ſkal eitt Par fara
jnn til þijn j Ørkena, ſo þad meige hallda
Lijfenu.
21. Og þu ſkallt taka allshaattadar
Fædſlur med þier ſem etande eru, og ſafna
þeim jnn til þijn, ſo þad meige vera þier og
þeim til Atvinnu.
22. Og Noe giorde alla hlute ſo ſem
GUd baud honum.

## VII. Capitule.

Synda Floded kemur.

Og DROTTenn ſagde til Noa, Gaack
jnn j Ørkena, þu og allt þitt Hus,
þviad eg hefe ſied þig * Riettlaatann fyrer mier
a þeſſum Tijma. * 2 Pet. 2, 5.

2. Tak

2. Tak jnn til þijn af allshaattudum hreinum Kvikendum, Sio og Sio, Karlkins og Kvennkins, Enn af ohreinum Kvikendum ei meira enn eitt Par, Karlkins, og Kvennkins.

3. Lijka so af Fuglum Loptsins sio og sio, Karlkins og Kvennkins, so ad Sæde blijfe lifande a allre Jordu.

4. Þviad epter Sio Daga vil eg laata rigna a Jordena, j Fiorutijger Daga og Fiorutijger Nætur, og afmaa af Jordunne allt þad sem nockra veru hefur, og eg hefe giort.

5. Og Noe giorde alla hlute so sem Drottenn baud honum.

6. Enn hann var Sexhundrud aara gamall, þegar Vatnsflooded kom yfer Jordena.

7. Og hann jnn-gieck j Ørkena og hans Syner, hans Kvinna, og hans Sonar Kvinnur, fyrer Vatnsflooded.

8. So og geingu jnn j Ørkena til Noa af hreinum og ohreinum Kvikendum.

9. Af Fuglum og allshaattudum Skridkvikendum, sem voru a Jordu, porum saman, eitt Karlkins og Kvennkins, epter þvi sem GUD DROTtenn hafde boded honum.

10. Og þa þeir Sio Dagar voru lidner, þa kom Vatnsfloded yfer Jordena.

11. Pa Noe var Sexhundrud aara gamall, a þeim seitianda Deige j ødrum Manude, Pad er Dagurenn, þegar uppspruttu aller uppsprettu-brunnar hins mikla Undirdiups, og Himnaraufarnar opnudust.

12. Og þar rignde a Jordena j Fiorutijger Daga og Fiorutijger Naatta.

13. Niett a þeim sama Deige gieck Noe jnn j Ørkena med sijnum Sonum, Sem, Cham, Japhet, og med sinne Kvinnu og sijnum þremur Sonarkvinnum,

14. Par med allra handa Dyr, hvørt epter sijnu Kine, og allra handa Fienadur epter sijnu Kine, og allra handa Skridkvikende sem skrijda a Jordenne epter sijnu Kine, og allra handa Fuglar epter þeirra Kine, allt þad sem floged gat og Vænge hafde,

15. Petta gieck allt jnn j Ørkena til Noa, porum saman af øllu Hollde, j hvøriu ad Lijfs Ande var.

16. Og þad var Karlkins og Kvennkins, af allskins Hollde, og geingu þar jnn, so sem GUD hafde boded honum. Og Drottenn liet aptur epter honum.

17. Og * Vatnsfloded kom yfer Jordena j Fiorutijger Daga, Og Vatned ox og upplypte Ørkenne, hatt yfer Jordena.

* Vatnsfloded kom 27. Junii epter Heimsins Skøpun 1656 aar, fyrer Christi hingadburd 2305. aar.

18. So magnadust nu Vøtnenn og geingu yfer allt a Jordunne, so ad Ørkenn flaut a Vatnenu.

19. Og Vøtnenn geingu yfer alla Jordena, og urdu so mikel a Jordunne, ad øll stor Fioll under øllum Himnenum voru j kafe.

20. Fimmtan alnum gieck Vatned hærra yfer Fiollenn þau sem j kafe voru.

21. Pa * fyrerfoorst allt Holld þad sem hrærdest a Jordunne af Fuglum og Fienade, Skoogdyrum og af øllum Skridkvikendum Jardarennar, og aller Menn.

* Matth. 24 39.

22. Allt þad sem hafde lifande Anda á Jordu, þad drapst.

23. Pannen vard afmaad allt þad sem a Jordunne var, bæde Menn og Fienadur, Skridkvikende og Fuglar Loptsins, þad vard alltsaman afmaad af Jordunne.* Noe alleina vard epter, og þad hvad j Ørkenne var med honum.

* 1 Petr. 3, 20. 2 Pet. 2, 5.

24. Og Vatned stood yfer Jordunne j Hundrad og Fimmtijger Daga.

## VIII. Capitule.

Synda-Flodenu linner.

Pa minntest GUD a Noa, og a øll Dyr, og a øll þau Kvikende sem voru med honum

homum j Orkenne. Og hann liet Vind koma a Jordena, Og Votnenn mijnkudu.

2. Og Uppsprettur Underdiupanna luktust aptur, somuleidis Himnaraufarnar, og Regnenu af Himnum var hamlad.

3. Og Vatned mijnkade a Jordunne meir og meir, og þverrade epter Hundrad og Fimmtijger Daga.

4. A þeim seitianda Deige þess Siounda Moanadar nam Orkenn stadar oa Fiallenu Ararat.

5. Og Vatned þverrade og mijnkade miøg, allt til hins Tijunda Moanadar. A firsta Deige hins Tijunda Moanadar skaut upp þeim hæstu Fialla tindum.

6. Fiorutijger Dogum þar epter, lauk Noe upp Glugganum a Orkenne sem hann hafde giort.

7. Og liet eirn Hrafn utfliuga, hann flo j sijfellu aptur og framm, þar til ad Vatned þornade af Jordunne.

8. Epter þad liet hann eina Dufu utfliuga fra sier, til ad vita hvort Vatned mijnkade ecke a Jordunne.

9 Enn sem Dufann fann ecke þad, ad hun mætte hvijla sinn Foot uppa, kom hun til hans aptur j Orkena, þviad Vatned var þa enn yfer allre Jordunne. So utriette hann sijna Hond, og tok hana til sijn jnn j Orkena.

10. Pa beid hann enn j adra Sio Daga, og liet aptur eina Dufu fliuga af Orkenne.

11. Og hun kom aptur til hans ad Kvollde. Og sioa þu. Hun hafde j Munne sier eitt afbroted Olin Laufblad. (a) Pa skilde Noe ad Vatned var þverrad a Jordenne.

(a) Vidsmiors Vidarlauf, merker Evangelium hvort Heilagur Ande lætur predikast.

12. Enn hann beid þa enn adra Sio Daga, og liet þa enn Dufuna utfliuga, hun kom ecke til hans aptur.

13. Þa Noe var Sexhundrud oara gamall og eins oars betur, a þann firsta Dag hins firsta Moanadar burt þornade Vatned a Jordunne. Pa tok Noe yferrioafred af Orkenne, og sioa ad Jordenn var ordenn þurr.

14. So var Jordenn olldungis þurr, a þeim Siounda og tuttugasta Deige j þeim adrum Moanude.

15. Pa talade GUD vid Noa, og sagde.

16. Far þu ut af Orkenne, þu og þijn Kvinna, þijner Syner, og þijnar Sonar Konur med þier.

17. Allshoattud Kvikende sem eru hioa þier, af ollu holde, af Fuglum og Fienade, og af allra handa Skridkvikendum, sem hrærast a Jordunne, skulu fara ut med þier, og hræred ydur a Jordunne, vered frioffsom og margfalldest a Jordunne.

18. So gieck Noe ut med sijnum Sonum, og med sinne Kvinnu, og med sijnum Sonarkonum.

19. So og allra handa Dyr, og allra handa Skridkvikende, allrahanda Fuglar, og allt þad sem a Jordunne hrærest, þad gieck ut af Orkenne, hvort til sins Lijka.

20. Og Noe biggde DROTtne eitt Alltare, og tok af allshoattudum hreinum Kvikendum, og af allra handa hreinum Fuglum, og offrade Brennefossur a Alltared.

21. Og DROttenn lycktade þann þockanlega Ilm. Og sagde j sijnu Hiarta. Eg vil nu ecke hier epter bolva Jordunne fyrer Mannsins skulld, Þviad Panckar mannligs Hiarta eru iller j fra Ungdome. Og hier epter vil eg ecke meir sloa allt þad sem lifer, so sem eg hefe nu giort.

22. Og so leinge sem Jordenn stendur þa skal ecke linna Soad og Kornskurd, Frost og Hita, Sumar og Vetur, Dag og Nott.

## IX. Capitule.

GUD stadfester sinn Sattmoala vid Noe med Regnboganum.

Og GUD blessade Noa og hans Sonu, og sagde til þeirra, Vered Frioffamer og margfalldest, og uppfylled Jordena.

2. Ydar Otte og Ogn skal vera yfer ollum Dyrum a Jordunne, og yfer ollum

Fuglum Loptsins, og yfer ollu þvi sem hræ-
rest a Jordunne, og aller Fiskar i Sionum
skulu vera giefner j ydar Hendur.

3. Allt þad sem hrærest og lifer þad skal
vera ydar Matur, so sem grænar Jurter
hefe eg giefed ydur allt þetta.

4. Alleinasta eted ecke þad Kiot sem enn
nu lifer j sijnu Blode.

5. Þvi eg vil hefna ydar Lijfs Blods, og
eg vil hefna þess a ollum Dyrum. Og eg
vil hefna Mannsins Lijfs a hvorium Man-
ne, so sem a þeim, sem ad er hans Broder.

6. * Hvor sem utheller Mannsins Blode,
hans Blod skal og so uthellast fyrer Man-
nenn. Þvi GUD hefur skapad Mannenn
epter sinne Mind.

* Matth. 26, 52. Opinb. B. 13, 10.

7. Vered frioosamer og margfalldest og
hræred ydur a Jordunne, so ad þier mei-
ged verda marger a henne.

8. Og GUD sagde til Noa og til hans
Sona med honum.

9. Sioed, eg uppset einn Sáttmaala
vid ydur, og vid ydart Sæde epter ydur.

10. Og vid oll lifande Dyr hioa ydur af
Fuglum, af Fie, og af ollum Dyrum a
Jordenne hioa ydur, af ollu þvi sem gieck ut
af Orkenne, hvad hellst Dyr þar eru a
Jordunne.

11. Og eg uppset so minn Sáttmaala vid
ydur, Ad hier epter skal ecke meir allt Holld
eydeleggiast af Floode Vatna, og þar skal
ecke framar koma Vatnsflood hier epter, ad
fordiarfa Jordena.

12. Og GUD sagde, Þetta er Teikn þess
Sáttmaala sem eg hefe sett a millum mijn
og ydar, og allra lifande Dyra hioa ydur,
hier epter til æfinlegrar Tijdar.

13. Eg hefe sett minn Boga j Skyunum,
hann skal vera eitt Teikn, a þeim Sáttmaa-
la millum mijn og Jardarennar.

14. Og þegar þad skier, ad eg fære Sky
yfer Jordena, þa skulu Menn sia minn Boga
j Skyunum.

15. Og þa vil eg þeinkia a minn Sátt-
maala millum mijn og ydar, og allra lifande
Dyra, j allshvattudu holldе, Ad þar skal ei
koma eitt Vatnsflood hier epter, ad fordiarfa
allt Holld.

16. Þar fyrer skal minn Boge vera j Sky-
unum, so eg kunne sia a hann, og þeinkia a
þann eylijfa Sáttmaala a mille GUDs og
allra lifande Dyra, j ollu Hollde sem er a
Jordunne.

17. Og GUD sagde þad sama til Noa,
Þetta skal vera Teikned a þeim Sáttmaala,
sem eg hefe uppreist millum mijn og alls Holldz
a Jordunne.

18. Þesser eru Noa Syner sem geingu ut af
Orkenne, Sem, Cham, Japhet, Enn
Cham er Canaans Fader.

19. Þesser eru þeir þrijr Syner Noa, af
hvorium oll Lond biggdust.

20. Enn Noe tok til ad yrkia Jordena, og
plantade Vijngarda.

21. Og sem hann drack af Vijne, vard
hann druckenn, og laa nakenn j sinne Tialldbud.

22. Þa nu Cham Canaans Fader saa sijns
Fodurs Leyndarlim, þa sagde hann þad baa-
dum sijnum Brædrum, sem ute stodu.

23. Þa toku þeir Sem og Japhet eitt Klæ-
de, og logdu uppa sijnar baadar Herdar, og
geingu a bak aptur, þar til, og huldu þeirra
Fodurs Skomm. Og þier sneru sijnum And-
litum þar fra, so ad þeir sæu ei þeirra Fodurs
blygdan.

24. Enn sem Noe vaknade af sijnu Vijne,
og fieck ad vita hvad hans yngste Son hafde
giort honum.

25. Þa sagde hann, Bolvadur verde Ca-
naan, hann skal vera Þræll allra Þræla me-
dal sinna Brædra.

26. Og sagde framar meir, Lofadur ver-
de DROTTENN Sems Gud, og Ca-
naan sie hans Þræll.

27. GUD utbreide Japhet, og laate hann
bua j Sems Tialldbudum, og Canaan skal
vera hans Þræll.

28. Og

28. Og Noe lifde epter Vatnsfloded, Priu Hundrud og Fimmtijger Aar.

29. Og hans allur Alldur vard Nyuhundrud og Fimmtyju Aar, og hann andadest.

## X. Capitule.

Ætt og Nidiar Noe Barna.

Þetta er Ættkvijsl þeirra Noa Sona, Sem, Cham, Japhet, og þeir gætu Børn epter Flooded.

2. Þesse eru Japhets Børn, Gomer, Magog, Madai, Javan, Thubal, Mesech og Thiras.

3. Enn þesse eru Gomers Børn, Ascenas Riphath og Thogorma.

4. Þesse eru Javans Børn, Elisa, Tharsis, Kithim og Dodanim.

5. Af þessum eru allar Heidingianna Eyar utskiptar j þeirra Londum, hvør epter sijnu Tungumæle, Ætt og Folke.

6. Þesse eru Chams Børn, Chus, Mizraim, Put, og Canaan.

7. Þesse eru Chus Børn, Seba, Hevila, Sabtha, Raema og Sabtecha. Og þesse eru Raema Børn, Scheba og Dedam.

8. Enn Chus gat Nimrod, Hann tok til ad verda einn mikelshættar Herra a Jordunne.

9. Og var einn volldugur Veidemadur fyrer DROTTNE. Þar fyrer er þad Mælltæke uppkomed; Hann er einn volldugur Veidemadur fyrer DROTtne so sem Nimrod.

10. Og Babel var upphaf hans Rijkes, Erech, Acad og Calne j Lande Sinear.

11. Af þvi Lande er Assur sijdan komenn, og hann upbiggde Ninive og Rehoboth, Jr og Calah.

12. Og þar til Ressen millum Ninive og Calah, þad er einn stoor Stadur.

13. Mizraim gat Ludim, Anamim, Leabim, Naphtuhim.

14. Pathrusim og Casluhim. Af þessum eru komner Philistim og Caphthorim.

15. Enn Canaan gat Zidon sinn firsta Son, og Heth.

16. Jebusi, Emori, Girgosi.

17. Hivi, Arki, Sini.

18. Arvadi, Zemari og Hamathi. Af þessum eru þær Cananita Ætter utbreiddar.

19. Og þeirra Lands ælfur taka fra Zidon, j giegnum Gerar, jnn til Gasa, þar til ad Menn koma til Sodoma, Gomorra, Adama, Zeboim, og allt til Lasa.

20. Þesse eru Chams Børn, j þeirra Ættum, Tungumælum, Londum og Lijdum.

21. Enn Sem, Japheths hins edllsta Broder, gat og so Børn, Hann er allra Barna Fader af Eber.

22. Og þesser eru hans Syner, Elam, Assur, Arphachsad, Lud og Aram.

23. Syner Aram eru þesser, Uz, Hul, Gether, og Mas.

24. Arphachsad gat Salah, Salah gat Eber.

25. Eber gat Tvo Sonu, einn hiet Peleg, þviad Verolldenn var skipt j hans Tijd, hans Broder hiet Jaketan.

26. Og Jaketan gat Almodad, Saleph, Hazarmavet, Jarah.

27. Hadoram, Usal, Dikela.

28. Obal, Abimael, Seba.

29. Ophir, Hevila og Jobab. Þesser aller eru Jaketans Syner.

30. Og þeirra Bygdarlog voru fra Mesa, þar til komed var til Sephar, til þess Fialls mot Austre.

31. Þesser eru Sems Syner, epter þeirra ætt, Tungumælum, Lande og Lydum.

32 Þesse er nu Ætthringur Noa Sona, j þeirra Ættkvijslum og Folke. Af þeim eru Pioderner utbreiddar a Jordena, epter Vatnsflooded.

## XI. Capitule.

(I) Turnenn Babel. (II) Sambland Tungumoalanna. (III) Sems Ættartala.

I. Enn Verolldenn oll hafde eitt Tal og Tungumoal.

2. Og sem þeir foru froa Austre, fundu þeir þar eitt sliettlende j Sinear Lande, og biuggu þar.

3. Og hvor sagde til annars, komed, giorum oss Tijgulsteina, og brennum þa j Ellde. Og þa toku þeir Tijgulsteina fyrer Murgriot, og Lijmstein fyrer Kalk.

4. Og þeir sogdu, komed, vier villium biggia oss einn Stad og Turn, hvors Toppur ad take upp j Himenenn, og giorum oss so eitt Nafn, þvi verda moa ad vier utvijstrunst um oll Lond.

II. 5. Pa for DROTTENN ofann, ad sia þann Stad og Turn sem Mannanna syner uppbiggdu.

6. Og DROTTenn sagde, sie, þetta er ein Piod, og þeir hafa aller eitt Tungumoal, og þeir hafa uppbyriad ad giora soddann, og ecke munu þeir loata af ad giora allt þad sem þeir hafa fyrer sig teked.

7. Komum, loatum oss fara ofann og villa þeirra Tungumoal, ad eingenn skilie hvad annar seiger.

8. So sundurdreifde DROTTENN þeim þadann j oll Lond, so ad þeir urdu af ad loata ad byggia þann Stad.

9. Pvi kallast hans Nafn Babel, þvi DROTTENN villte þar allra Landa Tungumoal, og hann sundurdreifde þeim þadann til allra Landa.

III. 10. Petta er Sems Ættkvijsl. Sem var Hundrad oara gamall, og oatte Arphachsad, * tveimur oarum epter Flooded.

* Luc. 3. 34, 35. 36.

11. Og hann lifde sijdann Fimmhundrud oara, og gat Sonu og Dætur.

12. Enn Arphachsad var Fimmtan og Tuttugu oara gamall, og gat Salah.

13. Og hann lifde sijdann Fiogur Hundrud og þriu oar, og gat Sonu og Dætur.

14. Salah var þriatijger oara gamall, þa gat hann Eber.

15. Og hann lifde sijdann Fiogur Hundrud og þriu oar, og gat Sonu og Dætur.

16. Eber var Fiortan og Tuttugu oara gamall, og gat Peleg,

17. Og hann lifde sijdann Fiogur Hundrud og þriatijger oar, og gat Sonu og Dætur.

18. Peleg vard þrijtugur ad Alldre, og gat Regu.

19. Og lifde sijdann Tvo Hundrud og Niju oar, og gat Sonu og Dætur.

20. Regu var Tolf og Tuttugu oara gamall, og gat Serug,

21. Og lifde sijdann Tvo Hundrud og Sio oar, og gat Sonu og Dætur.

22. Serug var þrijtugur ad Alldre, og gat Nahor,

23. Og lifde þar epter Tvo Hundrud oara, og gat Sonu og Dætur.

24. Nahor var Niju og Tuttugu oara gamall, og gat Tharah,

25. Og lifde sijdann Hundrad og Nijtian oar, og gat Sonu og Dætur.

26. Tharah var Siotugur ad Alldre, og gat Abram, Nahor og Haran.

27. Pesse er Tharah Ættkvijsl, Tharah gat Abram, Nahor og Haran. Enn Haran gat Loth.

28. Enn Haran andadest fyrre enn Fader hans Tharah j sijnu Fodurlande, j þeim Stad Ur j Chaldea Lande.

29. Enn Abram og Nahor kvongudust. Abrams Hustru hiet Sarai. Enn Nahors Kvinna hiet Milca, Harans Dotter, sem var Fader þeirra Milca og Jisca.

30. Enn Sarai var obyria, og gat eingenn Born.

31. Pa tok Tharah sinn Son Abram og Loth sinn Sonar Son, Harans Son, og Sarai sijna Sonarkonu Abrams Kvinnu,

og

og utleidde þau fra Ur j Chaldea, ad hann fære j Landed Canaan. Og þeir komu til Haran, og biuggu þar.

32. Og Tharah vard Tvo Hundrud og Fimm ꝏra gamall, og andadest j Haran.

## XII. Capitule.

(I) Kollun Abrams; (II) Ferd, og (III) Kross.

I. Og DROTTJnn sagde til Abrams, * Gack ut af þijnu Foostur Lande, og fra þijnu Frændlide, og ut af þijns Fodurs Huse, til þess Lands sem eg mun vijsa þier.

* Giorn: B. Post. 7, 3.

2. Og eg vil giora þig ad mikelle Piood, og blessa þig, og giora þier eitt stoort Nafn, og þu skallt vera ein Blessan.

3. Eg vil blessa þa sem þig blessa, og so bølva þeim sem þier bølva. Og * j þier skulu blessast allar Ættkvijsler a Jordunne.

* Gb. Post: 3, 25. Gal. 3, 8.

II. 4. So * ferdadest Abram burt so sem DROTTenn hafde sagt honum, og Loth foor med honum. Abram var Siotijger og Fimm ꝏra gamall, þa hann for ur Haran.

Ebr. 11, 8.

[Abram ferdast fra Haran til Canaan 430. ꝏrum ꝏdur enn Folkid utleiodist af Egyptalande.]

5. So tok þa Abram sijna Hústru Sarai, og Loth sinn Brodur-Son, og alla þeirra̋ fiꝏrhlute sem þeim hafde aflast, og so þær Sꝏler sem þeir hofdu gieted j Haran, og foru ut ad reisa j Landed Canaan.

6. Og sem þeir voru komner j þad sama Land, for Abram (þar) j giegnum, allt til þess Stadar Sichem. Og til Lundsins More. Enn Cananei biuggu j þann Tijma j Landenu.

7. Pa birtest DROTTenn Abram, og sagde. Pijnu Sæde vil eg giefa þetta Land. Og hann biggde DROTtne eitt Alltare j þeim Stad sem hann opinberadest honum.

8. Epter þad tok hann sig upp þadan til eins Fialls, sem lꝏ fyrer Austan Stadenn Bethel, og reiste þar upp sitt Landtialld, og hafde Bethel ꝏ vestre Sijdu, enn Ai ꝏ eystre. Og hann biggde DROttne þar eitt Alltare, og predikade um DROttins Nafn.

9. Par epter veik Abram framm leingre, og for j Sudur ꝏtt.

III. 10. Og þar vard miked Hallære j Landenu. Pa ferdadist Abram ofann til Egypta Lands, ad hann villde hallda sig þar sem eirn framande Madur, þviad miøg miked Hallære var j Landenu.

11. Og sem hann var komenn hardt nær j Egyptaland, þa sagde hann til sinnar Kvinnu Sarai, sioa þu, eg veit ad þu ert hardla frijd Kona Alits.

12. Og þegar þeir Egyptsku sioa þig, þa munu þeir seigia, þad er hans Eigenukona, so munu þeir sloa mig jhel, enn hallda þier epter.

13. Pvi bid eg þig, ad þu seiger, ad þu siert Syster mijn, uppa þad mier meige þess betur ganga þinna vegna, og ad mijn Sꝏl meige halldast vid Lijfed fyrer þijna skulld.

14. Enn sem Abram kom j Egyptaland, þa sꝏu þeir Egyptsku Menn Kvinnuna, ad hun var hardla væn.

15. Og Pharaonis Hofdingiar sꝏu hana, og hældu henne fyrer honum. Pa var hun hofd j Pharaonis Hus.

16. Og hann giorde Abram til gooda fyrer hennar Skulld. Og hann ꝏtte Saude, Naut, Asna, Præla og Ambꝏtter, Osnur og Ulfallda.

17. Enn DROTTJNN ploꝏgade Pharaonem med mikellre Ploꝏgu, og hans Hus, vegna Sarai Abrams Kvinnu.

18. Pa kallade Pharao Abram til sijn, og sagde til hans, þvi hefur þu giort mier soddan?

19. Pvi sagder þu mier ecke, ad hun være þijn eigenn Kona? þvi sagder þu þa ad hun være þijn Syster? Hvors vegna eg villde hafa teked hana mier til Eigennkvinnu.

Sie, þar hefur þu þijna Eigennkvinnu, tak hana og far j burt.

20. Og Pharao baud sijnu Folke, ad þad skyllde filgia honum a veg, og hans Kvinnu, og øllu þvi sem honum tilheyrde.

# XIII. Capitule.

Abram skilur vid Loth.

So for Abram af Egyptalande, med sinne Kvinnu, og med ollu þvi hann hafde, j Sudur-aatt, og Loth var med honum.

2. Og Abram var stoor-audugur, ad Kvikfie, so og lijka af Silfre og Gulle.

3. Og hann for jafnann aaframm fra Sudre ad Bethel, til þess Stadar sem hans Tialldbud var fyrr, j mille Bethel og Ai,

4. J þeim sama Stad sem hann hafde aadur giort Alltared, og hann predikade þar um Nafn DROTTJNS.

5. Enn Loth sem foor med Abram, hann hafde bæde Saude og Naut, og so Tialldbuder.

6. Og Landed var þraungt fyrer þa baada ad bua samann, þvi þeir høfdu fiolda Kvikfiaar, so þeir maattu ecke vera j sambyle.

7. Og þar vard osamþycke j millum Fiaarhirdara Abrams, og j millum Fiaarhirdara Loths. J þann Tijma biuggu Cananei, og so Pheresei j þvi Lande.

8. Pa mællte Abram vid Loth, Kiære, laatum ecke vera nockra Prætu millum þijn og mijn, og ecke helldur j millum minna og þinna Fiaahirdara, þvi vid erum Brædur.

9. Stendur ecke allt Landed oped fyrer þier? þar fyrer skil þig vid mig, vilier þu vijkia til vinstre Handar, þa skal eg fara til hægre, eda vilier þu fara til hægre Handar, þa skal eg vijkia til vinstre.

10. Pa upphoof Loth sijn Augu, og leit Landsaalfu alla hiaa Jordan, þvi aadur enn DROTTenn umturnade Sodoma og Gomorra, þa hafde hun noglegann Vatns vøkva, allt ad Zoar, lijka sem Alldingardur DROTtins, lijka sem Egypta Land.

11. Pa kiore Loth sier allt þad Hierad, sem laa hiaa Jordan, og for burt til Austurs. So skilldust þesser Brædur ad, hvor fra ødrum.

12. Abram bio j Canaan Lande, enn Loth j Stødum þess sama Hierads, og sette sijna Tialldbud allt til Sodoma.

13. Enn Folked j Sodoma var Jllt og syndgadest miøg j moote DROTTNE.

14. Og sem Loth var nu skilenn vid Abram, þa mællte DROTtinn vid Abram, upplyptu þijnum Augum, og lijt þu fra þessum Stad sem þu byr, til Nordurs, Sudurs, Austurs, og Vesturs.

15. Pviad allt þad Land, sem þu sier, vil eg giefa þier og þijnu Sæde æfinlega.

16. Og eg vil giora þitt Sæd sem Dupt a Jordu, gietur nockur talid Dupt Jardarennar, sa skal telia þitt Sæd.

17. Par fyrer tak þig upp, og far j giegnum Landed, bæde a leingd þess og breidd, þvi eg vil giefa þier þad.

18. So tok Abram sijna Tialldbud upp, kom og bioo j Lundenum Mamre, hvor ed liggur j Hebron, og biggde Drottne þar eitt Alltare.

# XIV. Capitule.

(I) Abram frelsar Loth; og (II) blessast af Melchisedech.

I. Og þad skiede a Døgum Amraphel Kongs af Sinear, og Arioch Kongs j Elassar, og Kedorlaomor Kongs j Elam, og Thideal, sem var Heidingianna Kongur.

2. Ad þeir børdust j mot Bera Kongenum af Sodoma, og moot Birsa Kongenum af Gomorra, og j moot Sineab, Kongenum af Adama, og mot Semeber Kongenum af Zeboim, og j moot Kongenum af Bela, sem kallast Zoar.

3. Pesser mættust aller j Dalnum Siddim, sem nu er sa Sallte Siorenn.

4. Pvi þeir høfdu vered lydskillder j Tolf aar under Kongenum Kedorlaomor, Enn fiellu fra hønum a þvi þrettanda aare.

5. Par

5. Þar fyrer kom Kedorlaomor og þeir Kongar sem voru med honum, a þvi Fiortanda are, og slou þa Risa sem voru j Astaroth, Karnaim, og Susim, j Ham og Emim, a þvi Sliettlende Kiriathaim,

6. Þeir slou og so Horeos, a þeirra Fialle Seir, allt til þess Vijdlendis Pharan, sem liggur til Eydemerkur.

7. Epter þad snern þeir sier aptur, og komu til þeirrar uppsprettu Mispat, þad er Kades, og slou allt Land þeirra Amalekitarum, Amoreorum, sem biuggu j Hazezon Thamar.

8. Þa reiste Kongurenn af Sodoma ut, Kongurenn af Gomorra, Kongurenn af Adama, Kongurenn af Zeboim, og Kongurenn af Bela, sem kallast Zoar, og biuggust til Bardaga j Dalnum Siddim,

9. A mote Kedorlaomor Kongenum af Elam, og j mot Thideal Heidingia Konge, og j mote Amraphel Kongenum af Sinear, og j moot Arioch Kongenum af Elassar, Fiorer Kongar a moote Fimm.

10. Og þar voru margar Leirgrafer j þessum Dal Siddim. Enn Kongurenn af Sodoma og Gomorra urdu þar slegner a flotta og vid Velle lagder, enn þeir sem epter voru fludu til Fialla.

11. So toku þeir alla þa Fiaarhlute sem voru j Sodoma og Gomorra, og allt þad sem ætt var, og drou þar fra.

12. Þeir toku og so lijka Loth Abrams Brodur Son, og hans allann Fiaarhlut, þviad hann bio j Sodoma, og so drou þeir þar fra.

13. Þa kom einn sem j burt hafde komest, og sagde þad Abram utlendska, þeim sem þa bio j Lundenum Mamre Amorhei, sem var Broder þeirra Eskols og Aners, þesser voru Scattmaals bundner vid Abram.

14. Og sem Abram heyrde, þad hans Broder var hertekenn, voppnade hann þriu Hundrud og ætian sijna Huskarla, sem fædder voru j hans Huse, og hann foor epter þeim allt til Dan.

15. Þar skipte hann sijnum Lidsmonnum, og fiell a Naattarþele yfer sijna Ovine, og felldu þa, og rak flottann allt til Hoba, hvør ed liggur a vinstre Sijdu fra Stadnum Damasco.

16. Og hafde aptur med sier alla Fiaarhlute, og so Loth sinn Brodur, og allann hans Fiaarhlut, so og Kvinnur og Folked.

17. Enn sem hann kom aptur fra þessu Slage, sem hann hafde veitt Kongenum Kedorlaomor, og þeim odrum Kongum sem med honum voru, þa gieck Kongurenn af Sodoma ut j mote honum, a þann Voll sem kallast Konga dalur.

II. 18. Enn * Melchisedech Kongurenn af Salem, bar framm Braud og Vijn, og hann var Kennemadur hins Hæsta GUds,

* Ebr. 7, 1.

19. Og blessade hann, og sagde, Blessadur vertu Abram fyrer þeim Allra Hæsta GUde, sem ad styrer Himne og Jordu,

20. Og lofadur sie sa Allra Hæste GUd, sem gaf þijna Ovine j þijnar Hendur. Og Abram gaf honum Tijunder af ollum Hlutum.

21. Þa sagde Konungurenn af Sodoma til Abrams, gief mier Mennena, enn haf þu Fiaarhlute alla.

22. Abram svarade Sodoma Konge, eg upphef (a) mijnar Hendur til Drottins þess allra hæsta GUds, sem stiornar bæde Himne og Jordu,

(a) (Upphef) þad er, eg sver.

23. Ad eg vil ecke taka so miked sem einn Þraad, eda Skoþveing, af ollu þvi Gotse sem þier tilheyrer, so þu skallt ecke seigia, ad þu hafer giort Abram rijkann,

24. Utann þad sem þeir ungu Menn hafa neytt, og þeir Menn, Aner, Eskol og Mamre, þeir sem reistu medur mier, þa lætu taka sitt Hlutskipte.

## XV. Capitule.

(I) Abrams Tru er prooƒad. Canaan er (II) fyrerheited Abram og hans Nidium.

I. Epter þessa atburde, bar so til, ad Ord DROTTINs skiede til Abram, j einne Syn, og sagde, Ottast þu ecke Abram, eg

Eg er þinn Skiølldur, og þijn miøg stor Laun.

2. Enn Abram svarade: DROttinn, DROttinn, hvad villt þu gefa mier? Eg fer hiedan Barnlaus, og minn Verkstiore hefur einn Son, þesse Eleeser af Damasco.

3. Og Abram sagde framar meir, mier hefur þu eckert Sæde giefed, og sioa þu, ad Sonur mijns Þienara, skal vera minn Erfinge.

4. Og sioa þu, DROTTinn sagde til hans, ecke skal hann vera þinn Erfinge, helldur sa sem kiemur af þijnu Lijfe, sa same skal vera þinn Erfinge.

5. Og hann baud honum ad ganga ut, og sagde, lijttu upp til Himens og tel Stiørnurnar, Kanntu ad telia þær? og hann sagde til hans * So skal þitt Sæde verda.

*Rom. 4, v. 18.

6. Abram trude DROTtne og þad reiknade hann honum til * Riettlætis.

*Rom. 4, 3. Gal. 3, 6 Jac. 2, 23.

II. 7. Og hann sagde til hans, Eg er DROttinn sem utleidde þig fra Ur j Chaldea Lande, ad eg giæfe þier þetta Land til Eignar.

8. Þa sagde Abram, DROttinn, Drottinn, hvada merke skal eg hafa til þess ad eg skule þad eignast?

9. Og hann sagde til hans, Tak mier eina Ku þrevetra, og eina Geit þrevetra, og einn Hrut þrevetrann, og eina Turtildufu, og eina unga Dufu.

10. Og hann bar allt þetta framm fyrer hann, og sundurskipte þvi midt j Tvo Hlute, og lagde Partana hvørn giegnt ødrum, enn Fuglonum skipte hann ecke.

11. Og Fuglar settust a Hræenn, enn Abram rak þa j burtu.

12. Sem Solenn var nu undergeingenn, fiell þungur Svefn-høfgve yfer Abram. Og sioa þu, ad otta miklum og mirkre slo yfer hann.

III. 13. Þa sagde hann til Abrams, þad skalltu vita, * ad þitt Sæde skal verda framande a einu Lande, sem ad ecke heyrer þeim til, og þar munu Menn þioa þad med Þrælldome, og ploaga þad j Fiøgur Hundrud ara. *Gb. Post. 7, 6. 7.

14. Enn eg vil dæma þad Folk, sem þeir verda ad þiona. Þar epter skulu þeir fara a burt þadann med miklum audæfum.

15. Enn þu skallt fara med Fride til þinna Forfedra, og verda greftradur j godre Elle.

16. Enn þeir skulu koma hier aptur ad lidnum Fiorum Manns Olldrum, þviad Ranglæte Amoritarum er enn ecke fullkomnad.

17. Sem Soolenn var nu undergeingenn, og mirkt var orded, sioa þu, þa rauk einn Ofn, og einn Ellds Loge leid framm a medal Styckianna.

18. A þeim Deige giorde DROTTinn eirn Saattmaala vid Abram, og sagde, þijnu Sæde vil eg giefa þetta Land, fra Vatnsfallenu j Egyptalande, allt til þess stora Vatnsfalls Phrat.

19. Þa Kenita og Kinisita, Kadmonita.

20. Hethita, Pheresita, og Risana.

21. Amorita, Cananita, Gergesita, Jebusita.

## XVI. Capitule.

(I) Agar fær getnad, og (II) fæder Ismael.

I. Sarai Abrams Kvinna aatte eckert Barn, enn hun hafde eina Egyptska Amboatt, su hiet Agar.

2. Og Sarai sagde til Abram, sioa þu, DRottenn hefur (a) tillukt mig, so eg moa eige Born fæda, legg hioa þier Amboatt mijna, so eg meige, ef skie mætte, (b) uppbiggiast af henne. Abram hlydde Raust Sarai.

(a) (Tillukt) þad er, hann hefur ei giefed mier Edle til Barneignar.

(b) (Uppbyggiast) Þad er, Børn ad faa.

3. So tok Sarai Abrams Kvinna þa Egyptsku Amboatt Agar, og gaf hana sijnum Manne Abram til Kvinnu, þa þau høfdu bued Tiju aar j Canaans Lande.

4. Og hann gieck inn til Agar, og hun vard oliett. Sem hun nu sa ad hun var oliett,

liett, virdte hun lijtils sijna Husfru hioa sier.
5. Pa sagde Sarai til Abram, þu giorer
mier oriett, eg lagda mijna Amboatt hioa þier,
enn nu hun sier, ad hun hefur Gietnad feinz
ged, hlyt eg ad vera fyrerlytenn hioa henne.
Dæme GUD j millum þijn og mijn.
6. Pa sagde Abram til Sarai, sioa þu,
þijn Amboatt er under þijnu Vallde, gior vid
hana slijkt þu villt. Og sem Sarai villde þioa
hana, þa flyde Agar j burt fra henne.
II. 7. Enn Eingell DROTTJns fann haz
na hioa einum Brunne, i Eydemorkenne, sem
ad liggur hioa þeirre uppsprettu, sem er a
Veigenum til Sur.
8. Hann sagde til hennar, Agar Sarai
Amboatt, hvadann kiemur þu? og hvort villz
tu fara? Hun sagde, eg flyde fra minne Husz
fru Sarai.
9. Og Eingell DROTTJNS sagde til
hennar, far heim aptur til þinnar Husfrur,
og audmyk þu þig under hennar Hende.
10. Og Eingell DROTTins sagde til
hennar, eg vil margfallda þitt Sæde, so þad
skal eingenn kunna ad telia fyrer Fiølda Saz
ker.
11. Og Eingell DROTTins sagde fraz
mar meir til hennar, sioa, þu ert oliett ordenn,
og þu munt Son fæda, hans Nafn skallt þu
kalla Jsmael, þvi DROTTinn hefur heyrt
þinn Mootgang.
12. Hann mun vera einn grimmur Maz
dur, og hans Hønd skal vera j moote hvørium
Manne, og hvørs Manns Hønd j moote høz
num, og hann mun bua gagnvart øllum sijnum
Brædrum.
13. Og hun kallade DROTTJNS
Nafn, sem talade vid hana, Þu GUD sier mig,
þvi hun sagde, sannarlega hef eg sied þann
hier, sem mig sier hier epter.
14. Þvi kallade hun þann Brunn, Brunn
þess Lifanda og mig sioanda, hvor Brunnur
ad liggur a millum Kades og Bared.
15. Og * Agar fædde Abram einn Son,
og Abram kallade þann Son, sem Agar fædde
honum, Jsmael. * Gal. 4, 22.
16. Og Abram hafde sex um aattrædt, þa
Agar fædde honum Jsmael.

## XVII. Capitule.

(I) Abram er nefndur Abraham; (II) Jnsetning Umskurnarennar: (III) Jsaak er fyrerheitinn. (IV) Umskurnenn er fyrst brukud.

I. Þa Abram var Niju og Nijutijger Ara
gamall, birtest DROTTJnn høz
num og sagde til hans, Eg er Allmaattugur
GUD, gack fyrer mier, og vertu algiørdur.
2. Eg vil giora minn Saattmaala j millum
mijn og þijn, og eg vil margfallda þig hardla
miøg.
3. Pa fiell Abram framm a sitt Andlit. Og
GUD talade framarmeir vid hann, og sagde.
4. Sioa þu, Eg em, og eg hefe bunded mitt
Saattmaal vid þig.
5. Og þu skallt verda margra Þioda Fader.
Þar fyrer skalltu ecke leingur heita * Abram,
helldur skal þitt Nafn kallast Abraham, þvi
eg hefe giort þig ad Fødur margra Pioda.

* Abram kallast hæar Fader, enn Abram Fader Fiølmennis.

6. * Og eg vil giora þig miøg margfallz
dann, og eg vil laata koma fiølda Folks af
þier, þar skulu og eirnenn Kongar koma af
þier. * Rom. 4, 17.
II. 7. Og eg vil uppreisa minn Saattmaala
j millum mijn og þijn, og þijns Sædis epter
þig, hioa þeirra epterkomendum, so þad sie
einn Eylijfur Saattmaale, ad Eg sie þinn
GUD, og þijns Sædis, epter þig.
8. Og eg vil giefa þier og þijnu Sæde epter
þig, þad Land, i hvøriu þu ert framande,
sem er þad allt Landed Canaan, til eirnrar eyz
lijfrar Eignar, og eg vil vera þeirra GUD.
9. Og GUD sagde til Abrahams, so hallt
nu mitt Saattmaal, þu og þitt Sæde epter
þig, hioa þeirra Epterkomendum.
10. Þetta er mitt Saattmaal, sem þier
skulud hallda, mille mijn og ydar, og þijns
Sædis epter þig. Allt Karlkins, sem er a mez
dal ydar, skal * umskierast.

* Giørnb: Post: 7, 8. Rom. 4, 11.

11. Og þier skulud umskiera Yferhud ydars Hollds. Pad skal vera Sattmaals Teikn, a millum mijn og ydar.

[Umskurnenn er Insett 2047. aarum epter Heimsins Skøpun, fyrer Hingadburdenn Christi, 1915.; a þvi aare afmaadest Sodoma og Gomorra; þa kom Isaac til aare seinna.]

12. Þier skulud umskera hvort Sveinbarn, þa þad er aatta Daga gamallt hiaa ydar Eptirkomendum, lijka og eirnenn hvørn heimafæddann Heimelis Mann, eda tilkeyptann, af hvørskins Utlendingum, sem ecke eru af ydar Sæde.

13. So skal minn Saattmaale vera a ydar Hollde til eins Eylijfs Saattmaala.

14. Og Hvørt þad Sveinbarn sem ecke er umskored a Yferhud sijns Hollds, þess Saal skal afmaast fra hans Folke, þviad hann forliet minn Saattmaala.

III. 15. Og * GUd sagde j annad sinn til Abrahams, Þijna Kvinnu Sarai skalltu ecke hiedann af kalla Sarai, helldur skal hennar Nafn vera Sara. Þvi eg vil blessa hana, og af henne vil eg giefa þier einn Son.

* Gal. 4. 23.

16. Þvi eg vil blessa hana, og þar skulu koma Pioder af henne, og so Konungar margra Pioda.

17. Pa fiell Abraham framm a sitt Andlit, og broste, seigiande j sijnu Hiarta, skal eg eiga Barn Hundrad aara gamall? og skal Sara Nijræd Barn fæda?

18. Og Abraham sagde til GUDS, eg villde Ismael mætte lifa fyrer þier.

19. Pa sagde GUd, ad vijsu, Sara þijn Kvinna skal fæda þier eirn Son, þann skalltu kalla Isaac, þvi vid hann vil eg uppreisa minn Eylijfann Saattmaala, og vid hans Sæde epter hann.

20. Þar ad auk hefe eg og bænheyrt þig um Ismael, sia þu, eg hefe blessad hann, og eg vil auka hann, og giora hann miøg margfalldann. Hann mun gieta Tolf Hofdingia, og eg vil giora hann ad einure mikillre Piod.

21. Enn minn Saattmaala vil eg uppreisa vid Isaac, hvørn Sara skal fæda þier, j þetta Mund a ødru aare.

22. Og hann liet af ad tala vid hann, og GUd for upp fra Abraham.

IV. 23. Pa tok Abraham sinn Son Ismael, og alla þa Pienara sem fædder voru j hans Huse, og alla þa sem til voru keypter, og alla adra sem voru Karlkins j hans Huse, og umskar Yferhud a þeirra Hollde, a þeim enum sama Deige sem GUd hafde sagt honum.

24. Og Abraham var Niju og Nijutijger aara gamall þa hann umskar Yferhudena a sijnu Hollde.

25. Enn Ismael hans Son var þrettan aara gamall þa hans Hollds Yferhud var umskorenn.

26. A einum Deige voru þeir aller umskorner, Abraham, hans Son Ismael,

27. Og allt Karlkins, sem var j hans Huse, heimafædder og af annarlegum keypter, þeir voru aller umskorner med honum.

## XVIII. Capitule.

(I) Abraham fær ad Nyu Fyrerheite um Isaak, og (II) er søgd fyrer fram Eydelegging Sodoma Borgar.

I. Og DROTTINN birtist honum j þeim Lund Mamre, þa hann sat j sijnum Tialldbudardyrum, og Dagurenn var sem heitastur.

2. Og er hann upplypte sijnum Augum, Pa stodu þrijr Menn gagnvart honum. Og sem hann leit þa, rann hann j moot þeim ur sijnum Tialldbudardyrum, og fiell framm til Jardar,

3. Og sagde, HErra, hafe eg funded Naad fyrer þijnu Auglite, þa gack ecke framm hiaa þijnum Pienara.

4. Ydur skal sækia lijted Vatn ad þvo ydar Fætur, og hvijled ydur under Triemu.

5. Eg vil bera ydur Munnbita Brauds, so þier meiged styrkia ydart Hiarta, sijdann fared ydar Leid, þvi þar fyrer erud þier komner hingad til ydvars Pienara. Þeir svørudu, gior sem þu mællter.

6. Abraham flytte sier jnn j Tialldbudena til Sara, og sagde, skyt þier og gior til Deigs þria Mæler Hveitemiols, hnoda og baka Kokur.

7. Og hann hliop til Nautanna og sokte einn godann feitann Koalf, og fieck Piena=ranum, hann flytte sier og tilreidde hann.

8. Og hann bar framm Smior og Miolk, og af þeim Koalfe, sem hann hafde tilreidt, og sette þad framm fyrer þa, og hann stood hioa þeim under Trienu, og þeir neyttu.

9. Pa sogdu þeir til hans, hvar er þijn Kvinna Sara? Hann svarade, hun er þar jnne j Tialdbudinne.

10. Pa sagde hann, * Eg vil koma til þijn aptur, ad mier lifanda, sia þu, þa skal Sara þijn Kvinna hafa eirn Son. Þetta heyrde Sara til baka vid hann, a bak vid Tialldbudar Dyrnar. * Rom. 9, 9.

11. Og Abraham og Sara voru bæde gomul, og hnygenn à efra Alldur, so ad Kvennleger Edlis hætter voru horfner fra Sara.

12. Þar fyrer broste hun med sier sialfre, og sagde, skal eg nu stunda epter Lysting, þar sem eg er gomul ordenn, og * minn Herra hnygenn ad Alldre? * 1 Petr. 3, 6.

13. Pa sagde DROTTINN til Abra=hams, þvi hlær Sara þar ad og seiger, mun þad satt, ad eg skule Barn fæda so go=mul?

14. Skyllde nockur Hlutur vera Drott=ne Omogulegur? Eg vil koma til þijn a þes=sum Tijma, ad mier lifanda, og skal Sara hafa einn Son.

15. Pa þrætte Sara og sagde, eg hloo ecke, þvi hun var hrædd. Enn hann sagde, þad er ecke so, þu hloost.

II. 16. Pa stoodu Mennerner upp þadann, og sneru sier til Sodoma. Og Abraham gieck a leid med þeim, til ad filgia þeim.

17. Pa sagde DROTTinn, hvornenn moa eg dylia fyrer Abraham þvi sem eg vil giora?

18. Med þvi hann skal verda ad einu mi=klu og megtugu Folke, og allar Pioder a Jordunne skulu blessast j honum.

19. Þviad eg veit, ad hann mun bioda sijnum Bornum og sijnu Huse epter sig, ad vardveita Vegu DROTTins, og giora þad sem riett og gott er, so ad DROTTinn læte þad koma yfer Abraham, sem hann hefur heited honum.

20. Og DROTTINN sagde, þar er eitt Hroop j Sodoma og Gomorra, þad er miked, og þeirra Synder eru miog þun=gar.

21. Þar fyrer vil eg fara ofann, og vita hvort þeir hafa giort allt epter þvi hroope, sem komed er fyrer mig, eda sie þad ecke, so ad eg meige þad vita.

22. Og Mennerner sneru sijnu Auglite þar fra, og geingu til Sodoma.

23. Enn Abraham var standande fyrer DROTTne, og gieck framm fyrer hann, og sagde, villtu lijfloata þann riettloata med þeim ogudlega?

24. Ma vera þar finnest Fimmtijger riett=loater j Stadnum, villtu þa lijfloata þa og þirma ecke þeim Stad, fyrer sokum þeirra Fimmtijger riettloatra Manna, ef þeir være þar?

25. Fiarlægt sie þier þad, ad þu skuler þad giora, ad drepa þann riettloata med þeim O=gudlegu, ad sa hinn Riettloate verde lijkur þeim Ogudlega, þad sie langt fra þier, þu sem ert * allrar Verralldarennar Domare, ecke muntu so dœma. * Rom. 3, 6.

26. Pa sagde DROTTINN, ef eg finn Fimmtijger riettloatra Manna j þeim Stad Sodoma, þa vil eg fyrer þeirra skulld fyrergiefa ollu þvi Ploatse.

27. Abraham svarade og sagde, Ach sioa, eg hefe um sinn uppbiriad ad tala vid DROt=tinn, þar sem eg er þo Dupt og Aska.

28. Skie ma, þar sieu Fimm midur enn Fimmtijger Riettloatra, villder þu þa afmoa allann Stadenn, vegna þeirra Fimm? Hann

 sagde,

sagde, ef eg finn þar Fimm og Fiorutijgu þa
mun eg ecke afmaa þa.
29. Og hann talade framar meir vid hann,
og sagde, kann skie þar meige finnast Fiorutij-
ger jnne. Enn hann svarade, Eg vil eckert
giora þeim vegna þeirra Fiorutijgu.
30. Þa sagde Abraham, Reidst mier ecke
Drottenn, þo eg tale enn meira, maa skie þar
finnest þriatijgu jnne? Hann svarade, ef eg
finn þar þriatijgu, þa vil eg eckert giora þeim.
Og hann sagde.
31. Ach, sia, eg hefe teked mier fyrer
hendur ad tala vid DROTTinn. Enn ef
þar jnne finnast kannskie Tuttugu, hann sva-
rade, eg vil ei fordiarfa þa vegna þeirra Tut-
tugu. Og hann sagde.
32. Æ DRottinn, reidst ecke þo eg tale
enn alleina eitt sinn, enn ef þar finnast Tiju.
Og hann svarade, Eg vil ecke afmaa þa vegna
þeirra Tiju.
33. Og DROTTENN gieck j burt ep-
ter þessar vidrædur vid Abraham. Og Abra-
ham foor aptur til sijns Stadar.

## XIX. Capitule.

(I) Loth er kunngiørd Sodoma Eydelegging; (II) Hann frelsast; en (III) syndgar.

I. Ad Aptne komu þeir tveir Einglar til
Sodoma, enn Loth sat j Sodome
Borgar hlide. Og er hann leit þa, þa stod
hann upp j mote þeim, og hneigde sig med
sijnu Andlite til Jardar.
2. Og sagde, siaed Herra, * Komed nu
jnn med mier j Hus ydvars Þienara, og vered
hier j Nott, og laated þvo ydar Fætur, so
meiged þier vera Arla uppe a Morgun, og
ferdast yckarn Veg. Þeir sogdu, nei, hell-
dur viliumm vid vera ute a Strætum j Nott.
* Hebre. 13, 2.
3. Þa neydde hann þa miog þar til, so
þeir geingu jnn med honum, og komu j hans
Hus. Og hann giorde þeim eina Maaltijd,
og bakade osyrdar Kokur, og þeir neyttu.
4. Enn fyrr enn þeir fære j Sængur, þa
komu Borgarmenn Sodoma Stadar, Un-
ger og Gamler, allur Lydur af ollum aat-
tum, og slou hring um Hused,
5. Utkolludu Loth, og sogdu til hans.
Hvar eru þeir Menn sem komu til þijn j Nott?
Leid þa ut til vor, so vier meigum kienna þeirra.
6. Loth gieck ut fyrer Dyrnar til þeirra,
og liet aptur Dyrnar epter sier, og sagde.
7. Æ kiærer Brædur, giored ecke sod-
dann Glæp.
8. Sia, eg hefe tvær Dætur, sem enn-
nu hafa ecke Mann þydst, eg vil leida þær
ut til ydar, giored vid þær hvad ydur lyster.
Alleinasta giored þessum Monnum eckert,
þviad þar fyrer eru þeir hier jnngeingner,
under Skugga mijns Husa þaks.
9. Þeir svorudu, Kom þu hier nær. Og
enn aptur, þu ert einn utlendur Madur hier,
og villtu dæma oss, nu vel, vier viliumm
kvelia þig framar enn þa. * Og þeir bru-
tust hardt jnn a þann Mann Loth. Og sem
þeir hlupu til og villdu briota Dyrnar upp,
* 2 Pet. 2, 7.
10. Seildust Mennerner ut, og toku Loth
jnn j Hused til sijn, og luktu Dyrnar aptur.
11. Enn þeir Menn sem voru fyrer Dyro-
num urdu slegner med Blindleika, bæde
smaaer og stoorer, so leinge þeir urdu þreyt-
ter, og fundu hvorge Dyrnar.
12. Þa mælltu Mennerner vid Loth, ef
þu hefur nockurn Maag, Sonu eda Dæ-
tur, eda nockurn þier vanda-bundenn j
Stadnum, þa haf þa burt ur þessum Stad,
13. Þvi vid skulum afmaa þennann Stad,
þviad þeirra Hroop er mikid fyrer Drottne,
hann sende ockur hingad ad fordiarfa þa.
14. Loth gieck j burt og talade vid Bidla
Dætra sinna, og sagde, standed upp og
ganged ut af þessum Stad, þviad Drottinn
vill fordiarfa þennann Stad. Enn þeim þot-
te þad hlæelegt.
II. 15. Og þa ed dagade, budu Einglarner
Loth ad flyta sier, og sogdu, tak þijna Konu
og þijnar tvær Dætur sem hier eru, so ad
þu fyrerfarest ecke j Syndum þessa Stadar.

16. Og

16. Og sem hann seinkade, þa toku Mennerner j Hendur honum, og hans Kvinnu, og hans tveimur Dætrum, þviad DRottinn villde vægia honum,

17. Og leiddu hann ut, og lietu hann ut fyrer Stadinn. Og þa hann hafde leidt hann ut, þa sagde hann, frelsa Ønd þijna, og lyt eige aptur a bak, og nem hvørge Stadar j þessu Hieradi, forda þier a Fiallenu uppe, so þu fyrerfarest eige.

18. Þa sagde Loth til þeirra, Æ nei, Herra. Sia, med þvi þinn Þienare hefur funded Naad fyrer þijnu Auglite,

19. Þa vilier þu mikla þijna Miskunseme, þa þu hefur nu veitt mier, j þvi, ad þu villder laata mig hallda Lijfe, eg kann ecke ad forda mier a þessu Fialle, þvi kann skie ad mier verde nockud vondt, so ad eg meige deya.

20. Sie, hier er einn Stadur eige langt hiedann, til hans giet eg flued, og er lijtill, þar vil eg hiaalpa mier, þo hann sie lijtell, ad eg meige hallda mijnu Lijfe.

21. Þa sagde hann til hans, sia, eg hefe og aalited þig j þessu Efne, ad eg vil ecke umturna þeim Stad, sem þu hefur talad um.

22. Flyt þier þangad, og forda þier þar, þviad eg kann eckert ad giora, fyrr enn þu ert þar jnn komenn. Þar fyrer kallast sa stadur (a) Zoar,

(a) (Zoar) kallast lijtil.

23. Og Solenn var upprunnenn yfer Jordena, þa Loth kom jnn j Zoar.

24. Þa liet DROTTINN * rigna Brennesteine og Ellde, fra DROTTNE af Himnum, yfer Sodoma og Gomorra.

* Luc. 17, 29. 2 Pet. 2, 6.

25. Og umturnade þeim Stødum med ollu þvi Hierade, og ollum Innbyggiørum Stadaña, og ollu þvi, sem j Landenu vaxed var.

[Gud umturnar Sodoma og Gomorra, synande enn annad epterdæme hrædelegrar Guds Reide j giegn Syndenne, 392. Aarum epter Vatnsfloded, 42 aarum epter audlaat Noa, þa Heimurenn hafde stadid 2048. aar, Fyrer hingadburdenn Christi, 1915. aar.]

26. Og hans Kvinna * leit aptur a bak, og vard ad Sallt-Stolpa. * Luc. 17, 32.

27. Abraham tok sig upp snemma Morguns, til þess Stadar, sem hann hafde aadur staded fyrer DRottne,

28. Og snere sijnu Audlite j mot Sodoma og Gomorra, og til alls Lands þeirra hierada, og saa sig um, og sioa þu, þar upp gieck einn Reykur af Landenu, þvi lijkast sem reykur af Ofne.

29. Þvi þa Gud umturnade Stødunum j þeim Endemorkum, þa minntest hann a Abraham, og leidde Loth af þeim Borgum sem hann eydelagde, þar sem Loth var buande.

III. 30. Og Loth for af Zoar, og dvaldest a Fiallenu med sijnum tveimur Dætrum, þvi hann ottadest ad vera j Zoar, og var j einum Heller med sijnum baadum Dætrum.

31. Þa sagde su Elldre til þeirrar Yngre, Ockar Fader er hnygenn a efra Alldur, og þar er eingenn Madur epter ordenn a Jordu sem leggiast meige med ockur, epter allrar Veralldarennar Plagsid.

32. Þar fyrer kom þu, og giefum Fodur ockar Vijn ad drecka, og sofum hiaa honum, so vid meigum kveikia Kin af ockar Fodur.

33. So gaafu þær sijnum Fodur Vijn ad drecka þa somu Nott. Og su hin Elldre gieck jnn, og lagdest hiaa sijnum Fodur. Enn hann visse ecke af þa hun lagde sig, og ecke þa hun upp stood.

34. Um Morgunenn sagde su elldre til hinnar yngre, Sia þu, j giær laa eg hiaa mijnum Fodur, vid vilium og so a þessare Nottu giefa honum Vijn ad drecka, so þu meiger fara jnn og sofa hiaa honum, ad vid mættum kveikia Kin af ockrum Fodur.

35. So lijka gaafu þær sijnum Fodur a þeirre Nottu Vijn ad drecka. Og su yngre Dotturenn gieck jnn, og svaf med honum. Og hann visse ecke til, þa hun lagde sig, og ecke þa hun uppstood.

36. So feingu baadar Dætur Loths gietnad af sijnum Fodur.

37. Og su Elldre fædde einn Son, þann kallade hun Moab. Af honum komu þær

Pioder er Moabitar kallast, allt til þessa Dags.

38. Su yngre fæddeog eirn Son, þann kallade hun Ben=ammi, af honum komu Ammons Born allt til þessa Dags.

## XX. Capitule.

(I) Abimelech tekur Sara fra Abraham, sem (II) fær hana aptur ostemmda.

I. Abraham flutte sig þadann j sudurætt Landsins, og sette Bustad sinn a millum Kades og Sur, og vard (a) Utlenlendingur j Gerar,

(a) Framande.

2. Og sagde um sijna Kvinnu Sara, Hun er mijn Syster. Pa sende Abimelech, Kongurenn af Gerar, bod epter henne, og liet sækia hana.

3. Enn GUd kom um Nott til Abimelech j Draume, og sagde til hans, Sioa þu. Pu skallt deya vegna þeirrar Kvinnu sem þu hefur teked, þvi hun a sier Mann.

4. Enn Abimelech hafde ecke snert hana. hann sagde, DROTtinn, villtu þa sloa riettloatt Folk jhel?

5. Hefur hann ecke sialfur sagt mier, Hun er mijn Syster? Hun hefur og sagt, Hann er minn Broder, eg giorda þetta af einfolldu Hiarta, og med saklausum Hondum.

6. Og GUd sagde til hans j svefne, eg veit ad þu giorder þad af einfolldu Hiarta, þar fyrer hef eg vardveitt þig, so þu misgiorder ecke vid mig, og ei leyfda eg þier ad snerta hana.

7. So fa nu Mannenum sijna Kvinnu aptur, þvi hann er Spoamadur, og loat hann bidia fyrer þier, og muntu lifa. Enn ef þu fær honum hana ecke aptur, þa skalltu vita, ad þu munt vissulega deya, og allt þad þitt er.

II. 8. Abimelech reis upp oarla um Morgunenn, og kallade samann alla sijna Þienara, og talade oll þesse Ord fyrer þeirra Eyrum, og Folked vard miog Otta=sleiged.

9. Og Abimelech kallade a Abraham og sagde til hans, þvi hefur þu giort oss þetta? Hvad hef eg misgiort vid þig, ad þu villder leida so storann Glæp yfer mig og mitt Rijke? Ecke hefur þu breitt vid mig epter þvi sem þier bar.

10. Og Abimelech sagde enn framar til Abrahams, hvad hefur þu (b) sied þess, ad þu giorder þetta?

(b) (Sied) First þu ert Spoamadur, þa kannskie þier hafe vitrast j Sion, ad eg hafe þetta forþient med mijnum Syndum.

11. Abraham svarade, eg hugsade med mier, skiema, ad ei sie GUds Otte j þessum Stad, og kann vera ad þeir sloae mig jhel vegna minnar Kvinnu.

12. Hun er þo j Sannleika mijn Syster, þvi hun er mijns Fodurs Dotter, enn ei minnar Modur Dotter, og er ordenn mijn eigenn Kvinna.

13. Enn þa GUd baud mier ad ganga ut af mijns Fodurs Huse, þa sagde eg til hennar, veit mier þa Miskun, ad hvar sem vid komum, þa seigdu, ad eg sie þinn Broder.

14. Pa tok Abimelech Saude og Naut, Þræla og Amboatter, og gaf þad Abraham, og fieck honum aptur Saram sijna Eigennkonu.

15. Og sagde, Sioa þu, mitt Land stendur oped fyrer þier, þar fyrer moattu bua hvar þier best liikar.

16. Og hañ sagde til Sara, Sioa þu, eg hefe giefed þijnum Brodur þusund Silfurpeninga, Sioa, þad skal vera eitt Hulda fyrer þijnum Augum, fyrer ollum þeim sem eru hioa þier, og j ollum stodum. Og þad var (c) hennar Straff.

(c) (Hennar Straff) Þeir heilogu verda milldelega straffader sier til gagns og Abata, liika sem Sara hier, hun hafde kallad Abraham sinn Broodur, og fær storann Welglørning.

17. Og Abraham bad til GUds, og Gud læknade Abimelech, og hans Kvinnu, og hans Amboatter, ad þær fæddu Born.

18. Þvi DROTtinn hafde oadur tillukt allann modurlegann Kvid j Abimelechs Huse, fyrer saker Saru Abrahams Kvinnu.

XXI.

## XXI. Capitule.

(I) Isaak fædest; (II) Ismael er utrekenn; (III) Abraham giører Sæattmæala vid Abimelech.

I. Og * DROTTinn vitiade Saru, sem hann hafde lofad, og fullkomnade þad sem hann hafde til hennar sagt. * Ebr. 11,11.

2. Og Sara vard oliett og fædde Abraham einn Son j Elle sinne, j þeim sama Tijma, sem Gud hafde sagt honum.

3. Og Abraham kallade sinn Son, þann honum var Fæddur, Isaac, hvorn ed Sara fædde honum.

4. Og hann umskar hann a æattunda Deige, so sem ad Gud hafde boded honum.

5. Abraham var Hundrad æara gamall, þa hans Son Isaac var honum fæddur.
[Isaac var fæddur þa Abraham var 100. æara, a þvi æare er foreydd var Sodoma.]

6. Pa sagde Sara, Gud hefur giort mier einn Hlœatur, hviad hvor þetta heyrer, hann mun hlæa ad mier.

7. Og hun sagde, hvor munde hafa þorad ad seigia Abraham, ad Sara hefde Barn a Brioste, og hefde fædt honum einn Son j sinne Elle?

8. Og Barned ox upp, og vard vaninn af Brioste. Enn Abraham giorde eitt miked Giestabod, þann Dag þa Isaac var afvaninn.

II. 9. Og Sara sœa Son Agar hinnar Egyptsku, hvorn hun hafde fædt Abraham, ad hann var einn Spottare,

10. Pa mællte hun til Abrahams, * Rek þessa Ambœatt a burt, og hennar Son, þvi ei skal þesse Ambœattar Son Arf taka med mijnum Syne Isaac. * Gal. 4, 30.

11. Petta Ord misþocknadest Abraham miøg, sokum sijns Sonar.

12. Enn Gud sagde til hans, lœat þier ecke mislijka vegna Sveinsins og Ambœattarennar, gior allt sem Sara sagdi þier. * Þviad j Isaac skal þier nefnast þad Sæde.
* Rom. 9, 7.

13. Eg vil og giora Ambœattarennar Son ad Þiod, hviad hann er þitt Sæde.

14. Pa stood Abraham upp œarla Morguns, og tok Braud, og einn Leigel med Vatn, og lagde hann a Herdar Agar, og so Barned med, og liet hana fara. Hun for burt, og villtest a Edemorkenne hiœa Bersaba.

15. Og sem wtdrucked var Vatned af Leiglenum, þa varpade hun Barnenu nidur under eina Eik.

(a) Merk hier, hvorsu þad Agar er Fyrermindun Logmœalsins og þeirra verka, sem jem œan Truarennar eru giørd, Gal. 4, 24. Samt launar Gud þau Verk tijmanlega, og giører þa mikla a Jordunne, sem þau giøra.

16. Og gieck j burtu, og settest nidur þar gagnvart, so sem eitt Orskot þar fra, þvi hun sagde, Eige get eg sied uppa ad Barned deyr. Og hun settest nidur gagnvart Barnenu, og upphoof sijna Raust, og griet.

17. Pa bænheyrde Gud Sveinsins Raust, og Guds Eingell kallade af Himne til Agar, og sagde til hennar, Hvad er þier Agar? Hrædst þu ecke, þvi Gud bænheyrde Sveinsins raust þar sem hann liggur.

18. Statt upp, tak Sveinenn og leid hann þier vid Hond, þvi eg vil giora hann ad mikelle Piod.

19. Og Gud upplauk hennar Augum, og hun sœa einn Brunn, Hun gieck þangad ad, og fyllte sinn Leigel med Vatn, og gaf Sveinenum ad drecka.

20. Og Gud var med honum, Hann Ogs upp, Og bioo j Eydemorku, og vard einn goodur Skotmadur,

21. Og bioo j þeirre Eydemorku Pharan. Og hans Moder tok honum til Handa eina Eigennkvinnu af Egyptalande.

III. 22. A þeim tijma talade Abimelech, og Phichol hans Hershøfdinge til Abrahams, og sagde, Gud er med þier j øllum þijnum Giorningum.

23. Þvi vil eg þu vinner mier Eid, vid Gud, ad þu vilier ecke syna mier, mijnum Bornum, eda mijnum Barna Bornum

nockra

nockra Otrw, helldur ad þu vilier veita Miskunseme mier og mijnu Lande, j hvoriu þu ert einn Utlendingur, liika sem eg veitta þier.

24. Pa svarade Abraham, Eg vil sveria.

25. Og Abraham avijtade Abimelech, fyrer þann Vatnsbrunn, sem Abimelechs Pienarar hofdu teked med Ofrijke.

26. Pa svarade Abimelech, Eige var mier vitanlegt hvor þad giorde, Eige hefur þu helldur sagt mier þad, Ecke hef eg helldur heyrt þad fyrr enn j Dag.

27. Pa tok Abraham Saude og Naut, og gaf Abimelech. Og þeir giordu eitt Samband med sier.

28. Og Abraham tok sio Lomb, og liet þau affsijdis.

29. Pa mællte Abimelech til Abrahams, Hvad skulu þau sio Lomb sem þu lætur þar affsijdis?

30. Hann svarade, Þu skallt nu taka sio Lomb af minne Hende, og þau skulu vera mier til Vitnis, ad eg hefe grafed þennann Brunn.

31. Þar fyrer kallast þesse same Stadur (b) Bersaba, Þviad þeir sooru þar bvader hvor odrum Eida.

(b) (Bersaba) þad þydest Eid-Brunnur eda Svardaga brunnur, ma og vel kallast Siobrunnur.

32. Og þeir giordu so þar bvader Samband j Bersaba. Pa took Abimelech sig upp, og Phichol hans Hershofdinge, og snere aptur j Land þeirra Philisteis.

33. Enn Abraham plantade Trie j Bersaba, og predikade þar vt af Nafne DRottins, þess Eylijfa Guds.

34. Og hann var utlendingur j Lande Philistinorum, j langa Tijma.

## XXII. Capitule.

(I) Isaac ætte ad Fornfærast, en (II) frelsast, og Meßias er fyrerheitenn. (III) Nahors Born.

I Epter þessa Atburde freistade Gud Abrahams, og sagde til hans, Abraham! Hann svarade, Hier em eg.

2. Og hann sagde, Tak þinn Einka Son Isaac, þann þu elskar, og far j burt j þad Landed (a) Moria, og offra hann þar, til einnrar Brenne-fornar, a einu þvi Fialle, sem eg vil vijsa þier.

(a) (Moria) þad þyder Guds Otta, þvi þeir Gomlu Forfedur, Adam, Noe, og Sem hafa þionad Gude a þessu Fialle: Vier kollum þad þad Heilaga Fiall, þar Gude verdur þionad med Lofgiord, Bæn og Þacklæte.

3. Pa stood Abraham upp snemma Morguns, og sodlade sinn Asna, took med sier tvo af sijnum Pienorum, og sinn Son Isaac, klauf videnn til Brenneoffursins, took sig upp, og ferdadist til þess Stadar sem Gud hafde boded honum.

4. Og a þeim þridia Deige upplypte Abraham sijnum Augum, og sa hann stad oaleingdar.

5. Pa sagde hann til sinna Pienara, bijded hier med Asnann, enn eg og Sveirnenn vilium fara þangad, Og þa vid hofum loked Bæn ockar, þa vilium vid koma til yckar aptur.

6. Og Abraham took Brennefoornar Videnn, og lagde hann uppa sinn Son Isaac, enn hann bar Elldenn og Sverded sier j Hende. Og þeir geingu tveir samann.

7. Pa mællte Isaac vid sinn Fodur Abraham, Minn Fader! Abraham svarade, Hier er eg, minn Son. Og hann sagde, Sioa þu, Hier er Elldurenn og Vidurenn, enn hvar er Saudurenn til Brenne-Offursins?

8. Abraham svarade, Minn Son, Gud mun sioa fyrer Saud til Brenne-Offursins. Og þeir geingu tveir saman.

9. Og er þeir komu til þess Stadar, sem Gud hafde sagt honum, Pa biggde Abraham þar eitt Alltare, og lagde Videnn þar oa ofan, og batt sinn Son Isaac, og lagde hann upp oa Alltared ofan oa Videnn.

10. Og *riette sijna Hond vt, og greip Sverded, ad hann slatrade sijnum Syne.

* Ebr. 11, 17. Jac. 2, 21.

II. 11. Pa kallade Eingill DRottins af Himne

Himne til hans, og sagde, Abraham, Abraham, Hann svarade, hier em eg.

12. Og hann sagde: Legg ecke þijna hond a Sveinenn, og gior honum eckert. Þvi nu veit eg ad þu ottast Gud, og þu vægder ecke þijnum einka Syne fyrer mijnar Saker.

13. Pa upplypte Abraham sijnum Augum og sa eirn Hrwt fastann a Hornunum, a Bake sier j einum Buska. Og hann gieck þangad, og took Hrwtenn, og færde hann j Foorn til Brenne-Offurs, j sijns Sonar stad.

14. Og Abraham kallade þann Stad, DRottinn sier (b). Þar fyrer er þad Maaltæke enn til þessa Dags, a þvi Fialle, þar DRottenn Sier.

(b) (Drottenn sier) þad er, hann vaker og ber Umhyggiu fyrer øllum Hlutum.

15. Og GUDs Eingell kallade enn j annad sinne af Himne til Abrahams.

16. Og sagde, *eg hefe svared vid mig sialfann, seiger DROTTENN, af þvi ad þu giorder þennann Hlut, og villder ei vægia þijnum einka Syne.

* Luc. 1, 73. Ebr. 6, 13.

17. Ad eg * vil blessa þig og margfallda þitt Sæde, lijka sem Stiornur a Himnum, og so sem Sand a Sioafar Strøndu. Og þitt Sæde skal eignast Borgar-hlid sinna Ovina. * Ebr. 6, 14.

18. Og * j þijnu Sæde skulu allar Þioder a Jordunne blessast. Þvi þu varst hlydenn (c) minne Roddu.

* Giornb: Post: 3, 25. Gal. 3, 16.

(c) (Hlydenn) Hier verdur Abraham ecke hid firsta Riettlaatur af Trunne sialfur fyrer sig, helldur orkar hann sijnu Sæde mikellrar Blessundar, þvi hann var adur Riettlaatur ordenn.

19. So snere Abraham aptur til sinna Þienara, og þeir tooku sig upp, og fooru til Bersaba, og biuggu þar.

III. 20. Epter þessa atburde skiede þad so, ad Abraham var sagt, Sioa, Milca hefur fædt þijnum Brodur Nahor Born, sem er,

21. Uz þann Frumgietna, og Bus hans Broder, og Kemuel, af hvorium Syri eru komner,

22. Og Chesed, og Haso, og Pildas, og Jedlaph og Bethuel.

23. Enn Bethuel gat Rebeckam. Þessa atta fædde Milca Nahor Abrahams Brodur.

24. Og hans (a) Hioakona hiet Rehuma, hun fædde og so Theba, Gaham, Thahas og Maacha.

(a) Frilla.

## XXIII. Capitule.

(I) Sara andast, og (II) um hennar Legstad.

I. Sara lifde Hundrad Sio og Tuttugu aar,

2. Og hun andadest j einum Hofud Stad sem hiet (a) Hebron, j Lande Canaan. Þa kom Abraham ad barma sier og graata hana.

(a) (Hebron) er Kiriath Arba, seiger Moses, þad er fiorhlutadur Stadur, þvi Hofudstaderner fordum Tijd voru aller Arba, þad er sundurdeillder j iiij Parta, so sem Rom, Jerusalem, Babylon, Gen. 10, 10. Act. 7, 3.

II. 3. Sijdann stod hann upp fra hennar Lijke, og talade vid Heths Sonu og sagde,

4. Eg er einn utlendur Madur, og þo einn Innbyggiare a medal ydar, giefid mier einn eigennlegann Stad, til Greftrunar, hier hia ydur, so eg meige grefstra þar minn Frammlidenn, sem hier liggur fyrer mier.

5. Þa svorudu Heths Syner Abraham, og sogdu til hans.

6. Heyr oss, Kiære Herra, þu ert einn GUDs Hofdinge hier a medal vor, Graf þu þinn Frammlidna hier j vorum erligustum Grofum, eingenn af oss skal meina þier sijna Grof, ad þu meiger ei jarda þinn Frammlidna þar uti.

7. Þa stod Abraham upp, og hneigde sig fyrer Landsfolkenu, sem var fyrer Heths Sonum,

8. Og talade vid þa, og sagde, ef þad er

ydar Vilie, ad eg meige greftra hier minn Frammlidna, sem hier liggur fyrer mier, þa heyred mig, og bidied fyrer mig Ephron Son Zohar,

9. Ad hann vilie unna mier þess tvøfallda Hellirs, sem ad liggur vid endann a hans Akre, ad hann selie mier hann fyrer Peninga, so mikla sem hann er verdur, a medal ydar, til eins Greftrunar Eignardoms.

10. Þviad Ephron bioo a medal Heths Sona. Þa svarade Ephron Hethiter Abraham, so ad Heths Syner heyrdu þar uppa, fyrer øllum þeim sem geingu ut og jnn, ad hans Stadar Portdyrum, og sagde.

11. Nei minn Herra, helldur heyr mig, eg gief þier þann Akur, og þennann Hellerenn sem þar er, og eg gief þier hann j Valld, fyrer mijns Folks Barna Augum, til ad Jarda þinn Frammlidenn.

12. Þa hneigde Abraham sig fyrer Folkenu Landsins.

13. Og talade vid Ephron, so ad Lands Folked heyrde uppa og sagde, vilier þu unna mier Akursins, þa bid eg ad þu vilier taka Peninga fyrer hann, so vil eg greftra minn Frammlidenn þar uti.

14. Þa svarade Ephron Abraham, og sagde til hans,

15. Minn Herra, heyr mig, su Jørd er verd Fiogur Hundrud (b) Silfurpeninga, enn hvad er þad reiknanda a millum mijn og þijn? Graf þu ad eins þinn hinn Frammlidna.

(b) (Siclus) var Silfurpeningur ad vigt hálfur Eyrer Silfurs, þvi Menn vogu Peninga fordum Tijd lijka sem nu Gull.

16. Abraham hlydde Ephron ad, og vog hønum þessa Peninga ut, sem hann sagde, þar heyrdu Heths Born uppa, þad voru Fiogur Hundrud Silfurpeningar gillder og geinger j Kaup.

17. So vard Ephrons Akur, j hvørium sa tvefallde Heller var, þvert yfer fra Mamre, Abraham stadfestur til eignar med Hellernum sem þar j var, og øllum Triam, þar um kring Akurenn.

18. Ad asiaøndum Heths sonum, og øllum þeim sem geingu wt og jnn um hans Stadarport.

19. Epter þad greftrade Abraham sijna Kvinnu Sara, j þeim tvøfallda Heller, a Akrenum þvert yfer fra Mamre, þad er Hebron, j Canaans Lande.

20. Og sa Akur og Hellerenn þar wti stadfesteft af Heths Børnum, Abraham til Erfdar Greftrunar.

# XXIV. Capitule.

Isaac fær Rebeccu til Eiginkonu.

Abraham var gamall, og hnygenn a efra Alldur, og DRottinn hafde blessad hann j øllum Hlutum.

2. Og hann sagde til sijns Elldsta Þienara sem var j hans Hwse, hvør ed settur var yfer allt hans Gots, Legg þijna Hønd under mijnar Lendar,

3. Og sver mier vid DRottinn Gud Himens og Jardar, ad þu skuler ecke taka mijnum Syne til handa nockra af þeim Cananeis Dætrum hønum til Eiginnar Kvinnu, a medal hvørra eg er bwande.

4. Helldur skalltu fara j mitt Fødurland til minnar Ættar, og bidia þar mijnum Syne Isaac til Handa Eigenn Konu.

5. Þionenn svarade, Enn ef Konann vill ecke filgia mier hingad j þetta Land, Skal eg þa færa þinn Son þangad, j þad Land aptur, af hvøriu þu ert wtgeingenn?

6. Abraham sagde til hans, Varast þu ad hafa minn Son þangad aptur.

7. DRottinn Gud Himens, sa sem tok mig fra mijns Fødurs Hwse, og fra minne Odal-Jordu, sa sem talade vid mig, og vann mier Eid og sagde, Þetta Land vil eg giefa þijnu Sæde, Hann mun senda sinn Eingil fyrer þier, so þu munt þar taka mijnum Syne til Handa Eigennkonu.

8. Enn vilie Konann ecke filgia þier, þa ertu

kvittur

kvittur þessa Eids, eins kostar, lꝏttu minn Son ei koma þangad.

9. Þa lagde Sveirnenn sijna Hond under Lendar Abrahams sijns Herra, og vann honum Eid ad þessu

10. So tok Sveirnenn tiju Ulfallda af sijns Herra Ulfolldum og foor af stad, og hafde allra handa med sier af sijns Herra Gotse. Og tok sig upp, og foor j Mesopotamiam, til Borgarennar Nahor.

11. Þar hvijlde hann sijna Ulfallda utann Borgar, j moote Aptne, hiꝏ einum Brunne, a þeim Tijma sem Konur voru vanar ad fara ꝏt epter Vatne. Og hann sagde.

12. DRottinn Gud mijns Herra Abrahams, Kom nu a þessum Deige til mijn, og veit Miskunseme mijnum Herra Abraham.

13. Siꝏ, Eg stend nu hier hiꝏ þessum Brunne, og Mannanna Dætur af Borgenne koma nu hingad epter Vatne.

14. Og þa hier kiemur nu ein Pijka til hvorrar eg seige, Hneig þijna Skiolu nidur, og lꝏt mig drecka, og hun seiger, Dreck þu, eg vil og giefa þijnum Ulfolldum ad drecka, Ad hun sie su hin sama, sem þu hefur fyrerhugad þijnum Pion Isaac. Og ad eg meige merkia hier ꝏt af, ad þu hefur audsyndt Miskunsemd mijnum Herra.

15. Enn ꝏdur enn hann hafde þetta ꝏttalad, Siꝏ, þa kom Rebecka, hun var Dotter Bethuels Sonar Milca, og Milca var Nahors Abrahams Brodur Kvinna, og hun bar eina Skiolu a Oxlenne.

16. Og var mioeg ꝏn Pijka Alits, og enn þa Jungfrꝏ, so einginn Mann hafde enn þa þydst hana. Hun stie ofann j Brunnenn, og fyllte sijna Skiolu, og kom upp aptur.

17. Þa rann Abrahams Þienare j mote henne, og sagde, gief mier ad drecka lijted Vatn af þinne Skiolu.

18. Hun sagde, Dreck, minn Herra! Og strax tok hun skioluna j sijna Hond, og gaf honum ad drecka.

19. Og sem hun hafde giefid honum ad drecka þa sagde hun, eg vil og sækia vatn þijnum Ulfolldum, þangad til ad þeir hafa aller drucked.

20. Og hun flytte sier, og steypte ꝏr Skiolunne j Vatns trygelenn, og hliop aptur ofann til Brunnsins og bar Vatned upp, og Vatnade ollum hans Ulfolldum.

21. Manne-nn furdade þetta, um hana, og þagde þo, þar til hann kynne ad vita hvort Drottenn villde lꝏta hans Reisu luckast edur ei.

22. Og sem hans Ulfalldar hofdu aller drucked, tok hann eina gullega (a) Ennisspaung, ad vigt halfur Siclus, og sette tvo Armhringa a hennar Hendur, sem voru ad Vygt tiju Sicli Gulls.

(a) (Spaung) Þ:sse Ennisspaung eda Hlad hefur verid so sem halfur Hringur, og nad um Enned og aptur ad eyrum badum meigen, þar fyrer kallar hann þad stundum Eyrna hring, Enn stundum Ennisspaung, og er ad merkia so sem bæde Menn og Kvinnur hafe bored þ:tta skart, so sem þu kannt ad lesa j 35. Cap: hier epter.

23. Og hann sagde, Mijn Dotter, Hvorra Manna ert þu? Seig þu mier þad, Er ecke rꝏm j þijns Fodurs Hꝏse ad herbergia oss.

24. Hun svarade, Eg er Bethuels Dotter sonar Nahors, sem Milca fædde honum.

25. Og hun sagde framar meir til hans, Vier hofum Hꝏlm og foodur nog, og gott rꝏm til ad herbergia ydur.

26. Þa laut Madurenn nidur, og bad til Drottins,

27. Og sagde, Lofadur sie DRottinn Gud mijns Herra Abrahams, sem ecke hefur yfergiefed sijna Miskun og Sannleika vid minn Herra, Þviad DRottinn hefur leidt mig þann rietta Veg, hingad til mijns Herra Broddurs Hꝏss.

28. Og Pijkann rann heim og bar oll þesse Ord j sinnar Modur Hꝏs.

29. Enn Rebecka ꝏtte einn Broder, sem hiet Laban, Og Laban skundade ꝏt til Mannsins, ad Brunnenum.

30. Og sem hann sa Eyrnagulled, og Hriingana a Hondum sinnar Systur, og heyrde Ord Rebecku sinnar Systur, þad hun sagde, so og so hefur Madurenn mællt; Þa kom hann til Mannsins, Og sioa þu, Hann stod hia Brunnenum, med siina Ulfallda.

31. Og hann sagde, Kom hier inn þu blessadur af DRottni, þui stendur þu hier vtte? Eg hefe bwed þier Herberge, og skickad þier Rwm til þinna Ulfallda.

32. Og hann leidde Mannenn inn j Hwsed, og sprette af hans Ulfoldum, og gaf þeim Hoalm og Foodur, og so Vatn til ad þvo hans Fætur, og hans Manna, sem komu med honum.

33. Og hann sette Fædslur fram fyrer hann. Enn hann sagde, Eg vil ey Matar neyta, fyrr enn eg hefe reked mitt Erende. Þeir svorudu, Seig þu fram þitt erende.

34. Hann svarade, Eg er Abrahams Þienare,

35. Og DRottinn hefur riikuglega blessad minn Herra, ad hann er stormegtugur ordenn, og hann hefur giefed honum Naut og Saude, Silfur og Gull, Þræla og Ambaatter, Ulfallda og Asna.

36. Og hier med hefur Sara miins Herra Hwsfru fædt honum einn Son j sinne Elle, honum hefur hann giefed allt þad sem hann a.

37. Og minn Herra hefur teked Eid af mier, og sagt, þu skallt ei taka miinum Syne til handa nockra Kvinnu af þessum Canaans Dætrum, j þvi Lande sem eg by.

38. Helldur far þu til miins Fodurs Hwss, og til minnar Ættar, og tak þar miinum Syne til handa eina Kvinnu.

39. Enn eg svarade miinum Herra, Enn ef Kvinnann vill ecke filgia mier?

40. Þa sagde hann til miin, Sa DRottinn, fyrer hvoriom eg geing, hann mun senda sinn Eingil med þier, og giefa Lucku til þinnar Reisu, so ad þu munt taka miinum syne til handa eina Kvinnu, vt af minne Ætt, og af miins Fodurshwse.

41. So skalltu vera Kvittur fyrer miinum Eide, nær þu kemur til minnar Ættar, vilie þeir ecke giefa þier hana, so ertu kvittur þessa miins Eids.

42. So kom eg a þessum Deige til Brunnsins, og sagde, DRottenn Gud miins Herra Abrahams, Hafer þu giefed mier Raad til þessarar Reisu sem eg hefe ferdast.

43. Sioa þu, Eg stend hier hioa þessum Brunne, og nær hier kiemur nu ein Jonfru ad sækia Vatn, og eg seige til hennar, Gief mier lijted Vatn af þinne Skiolu til ad drecka.

44. Og hun seiger, dreck þu. Eg vil og sækia Vatn til þinna Ulfalda, Ad hun skal vera su Kvinna, sem DRottenn hefur fyrerhugad miins Herra Syne.

45. Enn adur eg hafde vttalad þesse Ord j miinu Hiarta, Sioa, þa kom Rebecka vt hingad, og bar eina Skiolu a siinum Oxlum, og hun stie nidur til Brunnsins, og bar upp Vatned. Þa sagde eg til hennar, Gief mier ad drecka.

46. So tok hun Skioluna strax af sinne Oxl, og sagde, Dreck þu, Eg vil og giefa þiinum Ulfoldum ad drecka, og eg drack, Hun vatnade og so Ulfolldonum.

47. Eg spurde hana og ad, og sagde, Hvers Dotter ert þu? Hun svarade, Eg er Bethuels Dotter, sem er Nahors son, hvern ed Milca fædde honum. Þa liet eg eitt Hlad um hennar Enne, og Armbring a hennar Hendur.

48. Og eg laut nidur, og tilbad DRottenn, og lofade DRottenn Gud miins Herra Abrahams, sem færde mig hingad þann rietta Veg, ad eg skyllde faa miins Herra Brodurs Dottur hans Syne til handa.

49. Þar fyrer, ef þier vilied syna Vinaattu og Trw miinum Herra, þa (b) seiged mier þad, Enn vilied þier þad ecke, þa seiged mier og eirnen þad, so ad eg meige vikia annad hvort til Hægre eda Vinstre Handar.

(b) (Seh

(b) (Seiged mier) Hann talar first vid Modurena og Brodurenn, um Giptumaal Meyarennar, hvar af siaa maa, ad heimugleg Trw-lofun aan Forelldranna vitundar er ecke riett.

50. Pa svarade Laban og Bethuel, og sogdu, fra Drottne er þetta komed, þar fyrer kunnum vier ecke neitt ad mæla a mote þier, hvorke illt nie gott.

51. Siaa þu, þar er Rebecka framme fyrer þier, tak þu hana og far aptur, ad hun sie þijns Herra Sonar Kona, so sem DRottin hefur sagt.

52. Og sem Abrahams Þion heyrde þesse Ord, hneigde hann sig til Jardar, fyrer DRottne.

53. Og hann tok upp Silfurs og Gulls Giersemar, og Klædnad, og gaf Rebecku. Enn hennar Brodur og Modur gaf hann Jurter.

54. So aat hann og drack, og þeir Menn sem voru med honum, og þeir voru þar um Nottena. Ad Morgne dags stod hann upp, og sagde, Leyfed mier nu ad fara heim til mijns Herra.

55. Pa svarade hennar Broder og Moder, Laat þu Stulkuna blijfa hier hiaa oss, eina tiju Daga, sijdann maattu fara.

56. Hann sagde til þeirra, Tefied ecke fyrer mier, þviad DRottinn hefur giefed mier eina luckusamlega Reisu, Laated mig fara heim til mijns Herra.

57. Pau svorudu, Vier skulum kalla a Pijkuna, og spyria epter hvad hun sialf seiger til.

58. So kolludu þau Rebecku fyrer sig, og sogdu til hennar, Villtu fara med þessum Manne (c)? Hun svarade, Jaa, Eg vil fara med honum.

(c) Brwdurenn a ecke ad vera neydd til Hjonaband sins af Forelldrunum, helldur ad vera ad spurd um sinn Vilia og Samþycke.

59. So lietu þau Rebecku sijna Systur, og hennar Fostur-Modur fara med Abrahams Þienara, og med hans Monnum.

60. Og þau blessudu Rebeckam og sogdu til hennar, þu ert vor Syster, vaxe af þier morg Þusund þusunda, og þitt Sæde eignest Borgar-hlid sinna Ovina.

61. So tok Rebecka sig upp med sijnum Ambaattum, og settu sig a Ulfallda, og fooru med Mannenum. Og Þienarenn medtok Rebeckam, og for af Stad.

62. Enn Isaac kom fra þeim Brunne, sem kalladest þess Lifanda og Siaaanda, þvi hann bio j Sudur-aatt Landsins,

63. Og var utgeingenn i mote Aptne, ut a Akurenn, ad giora sijna Bæn. Og hann upplypte sijnum Augum og saa hvar Ulfalldar komu.

64. Og er Rebecka leit upp, og saa Isaac, stie hun nidur af Ulfalldanum.

65. Og sagde til Sveinsins, hvor er sa Madur sem kiemur a mote oss þar a Akrenum? Hann sagde, þad er minn Herra. Pa tok hun sijna Kaapu, og hulde sig.

66. Og Sveirnenn sagde Isaac fra ollum þeim Atburdum sem skied hofdu, og hvad hann hafde utriett.

[Isaac hefur þa vered 40. aara gamall.]

67. Pa leidde Isaac hana j Tialldbud sinnar Modur Saru, og tok hana sier til Eigenn-konu, og elskade hana, so vard Isaac hug-gadur þess Harms sem hann hafde epter sijna Modur.

## XXV. Capitule.

(I) Onnur Gipting Abrahams og (II) Daude. (III) Ismaels, og (IV) Isaacs Syner.

1. Abraham gipte sig aptur einne Kvinnu, sem hiet Ketura.

2. Hun fædde honum Simron og Jak-san, Medan og Midian, Jesbak og Suah.

3. Og Jaksa gat Seba og Dedan. Enn Dedans Born voru þesse, Assurim og La-tusim og Leumim.

4. Og Midians Born voru, Epha, Epher, Hanoch, Abida, og Eldaa. Þes-ser aller eru Keturæ Syner.

5. Og Abraham gaf Isaac oll sijn Audæfe.

6. Enn þeim odrum Bornum sem hann hafde aflad med sijnum Hiaakvinnum gaf hann Gioafur, og liet þa fara aa burt j Austur-aatt, fra sijnum Syne Isaac, aa medann hann var enn aa Lijfe.

II. 7. Þetta er Abrahams Alldur, sem hann lifde, Hundrad Fimm og Siøtijger aar.

[Abraham andast 2123. aarum epter Heimsins Skøpun; Fyrer Christi hingad Fæding 1838. Jacob og Esau voru þa 14. Vetra gamler.]

8. Og hann for hnignande og andadest j einnre volegre Elle, þa hann var hnygenn ad alldre, og saddur af Lijfdøgum, og safnadest til sins Folks.

9. Og hans Syner Isaac og Ismael jordudu hann j þeirre tvofalldre Grof, a Akre Ephrons Zohar Hethiters Sonar, sem ad liggur yfer fra Mamre.

10. A þeim Akre hvorn Abraham keypte ad Heths Sonum. Þar var Abraham jardadur hia Sara sinne Eigennkvinnu.

11. Og epter Andlaat Abrahams blessade GUD Isaac hans Son, og Isaac bio hiaa þeim Brunne þess Lifanda og Siaaanda.

III. 12. Þesse er Ismaels Abrahams Sonar Ettkvijsl, sem Agar Egyptska Ambaatt Saru fæddi honum.

13. Og þesse eru Ismaels Sona Nøfn, sem þeirra Ett er nefnd epter.

14. Nebaioth var hanns Frumgietenn Son, sijdann Kedar, Adbeel, Mibsam, Misma, Duma, Masa.

15. Hadar, Thema, Jetur, Naphis, og Kedma.

16. Þesser eru þeir Ismaels Syner, med þeirra Nofnum, ut j þeirra Hofgordum og Stodum, Tolf Hofdingiar yfer þeirra Folke.

17. Og þetta er Ismaelis Alldur, Hundrad þrijatiju og Siø aar, og hann for hnignande og andadist, og safnadist til sijns Folks.

18. Og þeir biuggu fra Hevila og jnn til Sur, giegnt Egyptalande, þar sem Menn fara til Assyriam. Hann fiell (a) fyrer øllum hans Brædrum.

(a) (Hann fiell) Þetta kann marga vega ad utleggiast, minn Utlegging er su, ad Ismael hefur vered kosinlegur Madur, og hafe aller hans Brædur og Viner komed tilsamans a mote hans enu sijdarsta, og hafe so daed ærlega og loflega j þeirra Nærveru.

IV. 19. Þesse er Isaacs Abrahams Sonar Ettkvijsl, Abraham gat Isaac.

20. Og Isaac var Fiorutijgu aara gamall, þa hann gieck til ad eiga Rebecku Bethuels Dotter hins Syrlendska, af Mesopotamia, Syster Labans hins Syrlendska.

21. Og Isaac bad til DROTTins fyrer sinne Kvinu, þvi hun var Obyria. Og Drottinn heyrde hans Bæn, og * Rebecka hans Kvinna fieck Gietnad. *Rom. 9, 10. 11. 12.

22. Og Bornenn hnitludust vid j hennar Kvide. Þa sagde hun, ef þad skal so ganga mier, þvi er eg þa oliett ordenn? Og hun gieck j burt, og spurde DRottinn þar ad.

23. Og DROTTINN svarade henne, Tvær Þioder eru j þijnum Kvide, og tveggia handa lyder skulu skiliast fra þijnum Kvide, og Lydur mun Lyd yferstijga, og hinn meire mun þeim minna þiona.

24. Og sem sa Tijme kom, ad hun fyllde liettare verda, sia, þa voru þar Tvijburar j hennar Kvide.

25. Og hinn firste sem kom j Lios, hann var raudur ad lit, og allur saman lodenn sem eitt Skinn, og þeir nefndu hann Esau.

26. Jafnsnart kom j Lios hans Broder, og hiellt um Hælenn a Esau sinne hende, og þvi nefndu þeir hann Jacob. Isaac var Sextugur ad Alldre, þa þeir voru Fædder.

27. Og sem Sveinarner voru nu vaxner, þa giordest Esau Veidemadur og Akurmadur, enn Jacob var goodur Madur, og bio j Tialldbudenne.

28. Isaac elskade Esau, og aat giarnann af hans Veide, enn Rebecca unne Jacob.

29. Og Jacob hafde matgiort einn riett, og j þvi bile kom Esau af Akre, og var moodur.

30. Og

30. Og sagde til Jacob, lꜳt mig smacka af þeirre raudu (b) Matgiord þinne, þvi eg em Moodur, og af þvi kallast hann Edom.
(b) Sodningu.

31. Enn Jacob sagde, sel þu mier þa j Dag þijna Frumgietning.

32. Esau svarade, Sioa, eg hlyt ad deya, hvad stodar mig su Frumgietning?

33. Þa sagde Jacob, þa vinn mier Eid j Dag þar ad. Og hann soor honum Eid.

34. Og so * sellde hann Jacob sijna Frumgietning. Þa gaf Jacob honum braud, og af þeirre Matgiord sem hann hafde tilreidt af grionum. Og hann ꜳt og drack, reis upp og gieck j burt; so lijtels virdte Esau sijna Frumgietning. * Ebre. 12, 16.

## XXVI. Capitule.

(I) Isaak ferdast ur Lande; (II) hans Bustadur, og (III) Andstreyme.

I. Og þar vard enn mikid Hallære j Landenu, auk þess Hallæris er ꜳdur var ꜳ Dogum Abrahams. Og Isaac foor til Abimelechs Kongs Philistinorum af Gerar.

2. Þa vitradist DROTtinn honum, og sagde, Far þu ecke j Egyptaland, helldur vertu j þvi Lande, sem eg seige þier.

3. Vertu einn Utlendingur j þessu Landi, eg vil vera med þier, og blessa þig, þviad þier og þijnu Sæde vil eg giefa øll þesse Lond, og eg vil efna þann Eid, sem eg soor þijnum Fodur Abraham.

4. Og eg vil þitt Sæde margfallda so sem Stiornur a Himnenum, og eg vil giefa þijnu Sæde oll þesse Lond. Og j þijnu Sæde skulu allar Þioder a Jordunne blessast.

5. Fyrer þvi ad Abraham var hlydugur minne Roddu, og vardveitte mijn Bodord, mijn Riettinde, mijnar Skickaner, og mitt Logmꜳl.

II. 6. Og Isaac bio j Gerar.

7. Enn sem Folked j þeim Stad spurde ad hans Kvinnu, þa sagde hann, Hun er mijn Syster, þvi hann vogade ei ad seigia, hun er mijn Kvinna, meinande, kann skie þeir slꜳe mig ihel Rebecku vegna, þvi hun var hardla Frijd Synum.

8. Sem hann hafde nu vered þar nockra Stund, leit Abimelech Philisteis Kongur j giegnum einn Glugg, og vard þess var, ad Isaac liek vid Rebecku sijna Konu.

9. Þa kallade Abimelech a Isaac, og sagde, Sioa, hun er þijn Eigennkona, þvi hefur þu þa sagt, ad hun være þijn Syster? Isaac svarade honum, Eg hugsade med mier, skie ma ad þeir slꜳe mig j hel fyrer hennar skulld.

10. Þa sagde Abimelech, Þvi hefur þu so breitt vid oss? Þad hefde snart kunnad ad skie, ad nockur af Folkenu hefde lagst med þinne Kvinnu, þa hefder þu leidt einn Glæp yfer oss.

11. Þa baud Abimelech ollu Folkenu og sagde, Hvor hann snerter þennann Mann eda hans Konu, sa skal Dauda deya.

III. 12. Og Isaac sꜳde j þvi Lande, og hans Akur bar hundradfalldann Avogst a þvi ꜳre, Þviad DRottenn blessade hann.

13. Og hann vard Audugur og efldest meir og meir, allt þar til ad hann vard miøg megtugur.

14. So ad hann vard stor-audugur ad Kvikfie smau og storu, hann hafde og fiolda Þionustu folks. Þar fyrer øfundudu Philistei hann.

15. Og byrgdu aptur alla þa Brunna sem hans Fodurs Þienarar hofdu grafed, j Abrahams hans Fodurs tijd, og fylltu þa med Molld.

16. So ad Abimelech sagde til hans, Vijk fra oss, þviad þu ert ordenn oss of-megtugur.

17. Þa for Isaac burt þadann, og sette sijna Tialldbwd j þeim Dal Gerar, og bio þar.

18. Og hann liet upp grafa þa Brunna aptur sem þeir hofdu grafed a Dogum Abrahams hans Fodurs, hvoria Brunna ad Philistei hofdu byrgt aptur epter Abrahams Dauda. Og hann gaf þeim þau somu Nofn, sem hans Fader hafde ꜳdur giefed þeim.

19. So

19. So groofu Isaacs Pienarar j Dalnum og fundu þar eitt Brunn lifanda Vatns.

20. Enn Hirdararner af Gerar þrættust a vid Isaacs Hirdara, og sögdu, Pad er vort Vatn, þar fyrer kallade hann þann Brunn (a) Esek, þvi þeir giordu þeim þar oriett.

(a) Esek kallast of:ijke.

21. Pa groofu þeir einn annann Brunn, Og þeir kijfudu eirnen um hann, og þvi kallade hann hann (b) Sitna.

(b) Sitna kallast motstand, þar af heiter Døfullinn Sathan, þad er Mootstandare.

22. Pa foor hann þar fra, og groof einn annann Brunn, og þeir hofdu eckert Kijf um hann, þar fyrer kallade hann hann (c) Rehoboth, og sagde, Nu hefur DRottinn giefed oss rwm og lœted oss vaxa j Landenu.

(c) (Rehoboth) Vijdd og Breidd, þar sem ecke eru þreyngsle.

23. Siidan foor hann þadann til Bersaba.

24. Og DRottinn vitradest hönum þa somu Nott, og sagde, Eg er þijns Fodurs Abrahams Gud, Ottast ecke, þvi eg er med þier, og eg vil blessa þig, og margfallda þitt Sæde, vegna mijns þienara Abrahams.

25. Þa biggde hann þar eitt Alltare og (d) predikade um Drottins Nafn, og sette þar sijna Tialldbwd, og hans Pienarar groofu þar einn Brunn.

(d) Akallade Nafn DRottins.

26. Og Abimelech for til hans fra Gerar og hans Vinur Ahusath og Phichol hans Hershofdinge, Þa sagde Isaac til þeirra,

27. Þvi komed þier til mijn? Hvoru þier hafed œdur hatad, og reked frœ ydur?

28. Þeir svorudu, Vier siœum berlega, ad DRottinn er med þier, þar fyrer sögdum vier, ad þar skyllde vera Svardage a millum þijn og vor, so ad vier vilium giora einn Sœttmœla vid þig,

29. Ad þu skuler öngvann Skada giora oss, so sem vier hofum ecke snorted þig, og ei annad giort þier enn allt gott, og vier lietum þig fara j Fride, enn þu ert nu blessadur af DROTTne.

30. Pa giorde hann þeim eitt Giestabod, og þeir œtu og drucku.

31. Og þeir stoodu snemma upp um Morgunenn, og unnu Eida hvorier ödrum. Og Isaac liet þa fara, og þeir fooru fra hönum j Fride.

32. Pann sama Dag komu Isaacs Pienarar, og sögdu hönum af þeim Brunne, sem þeir hofdu grafed, og sögdu til hans, vier höfum funded Vatn.

33. Og þann Brunn kallade hann Saba, þar af kalladest sa Stadur Bersaba, allt til þessa Dags.

34. Pa Esau var Fiorutijgu œra gamall, þa gieck hann til ad eiga Judith Dotter Beri Hethei, og Basmath Dotter Elons Hethei,

35. Pær giordu bœdar Hiartans Sorg Isaac og Rebecku.

## XXVII. Capitule.

(I) Jakob er blessadur af Fodur sijnum, og (II) hatadur af Brodur sijnum.

I. Og þad skiede so, þa Isaac var ordenn gamall ad alldre, og hans Augu voru mirk ordenn, so hann kunne ecke ad siœ. Hann kallade þa sinn Elldra Son Esau, og sagde til hans, minn Son, hann svarade hönum, hier er eg.

2. Og hann sagde, Siœ, eg er ordenn gamall, og veit ecke nær eg mune deya,

3. Þvi tak nu þijn Veidarfære, þitt Pijlnakofur, og þinn Boga, og far ut a Mörkena, og veid mier nockud Villudyr.

4. Og matreid þu mier þar af Fædu, so sem þu veitst eg vil giarnann hafa, og ber mier hana jnn hingad, ad eg meige eta, so ad * mijn Sœl meige blessa þig, œdur enn eg andast.

* Ebr. 11,20.

5. Rebecka heyrde þesse Ord, sem Isaac mællte til sijns Sonar Esau. So gieck Esau wt a Mörkena ad veida Villudyred, so hann mætte færa þad heim.

6. Pa

6. Þa mællte Rebecka til Jacobs sijns Sonar, Sioa þu, Eg heyrde þinn Fodur talanda vid þinn Brodur Esau, og seigia, Sæk mier Villubrcad,

7 Og tilreid mier einn Riett, hvar af ad eg ete, ad eg giefe þier Blessan fyrer DRott: ne cadur enn eg andast.

8. So hlyd nu, Son minn Roddu, minne, hvad eg skipa þier.

9. Far þu til Hiardarennar, og haf hin: gad til mijn tvo Good Kid, so eg kunne ad giora af þeim Fædslu þijnum Fodur til han: da, af hvorre hann giarnann neyter.

10. Þa Fædslu skalltu bera jnn til þijns Fodurs, ad hann ete þar af, so ad hann bles: se þier cadur enn hann andast.

11. Jacob sagde til Rebecku sinnar Mo: dur, Sioa, minn Broder Esau er lodenn, enn eg er snoggur.

12. Ma vel skie ad minn Fader þreife a mier, og honum þyke þa sem eg hafe viliad blecкia sig, og fære þa Bolvan yfer mig enn ecke Blessan.

13. Þa sagde hans Moder til hans, su Bolvan kome yfer mig, Son minn, hlyd þu ad eins minne Roddu, og far ad sækia mier (þau).

14. Þa gieck hann a burt, sookte þau og færde sinne Modur. So matbioo hans Mo: der eina Fædslu, þa sem hans Fader villd. giarnann hafa.

15. Og hun tok þau bestu Klæde Esau sijns elldra Sonar, þau sem hun hafde j Hu: senu hiaa sier, og færde Jacob sinn yngra Son j þau,

16. Enn Skinned af Kidenu liet hun um hans Hendur, og þar sem hann var Hearlauc a Halsenum.

17. Og fieck so Jacob sijnum Syne þa Fædu j Hond sem hun hafde tilbued, og so Braud.

18. Og hann gieck jnn til sijns Fodurs, og sagde, minn Fader, hann svarar, hier er eg. Hvor ertu minn Son?

19. Jacob sagde til sijns Fodurs, eg er Esau þinn Frumgietenn Sonur, eg hefe giort þad sem þu bijfalader mier, Rijs upp, og sit, og et af mijnu Villubrcade, so ad þijn Saala meige blessa mier.

20. Þa sagde Isaac til sijns Sonar, Son minn, Hvorneñ maatter þu finna þad so snart? Hann svarade DROTTJNN GUD þinn sende mier þad til Handa.

21. Þa sagde Isaac til Jacobs, Kom hingad minn Son, so eg meige þreifa a þier og reyna hvort ad þu ert minn Son Esau, el: legar ei.

22. Þa gieck Jacob ad sijnum Fodur J: saac. Og sem hann hafde þreifad a honum, sagde hann, Roddenn er Jacobs Rodd, enn Hendurnar eru Esau Hendur.

23. Og hann þeckte hann ecke, þvi hans Hendur voru Lodnar so sem Hendur Esau hans Brodurs. Og hann blessade honum.

24. Og sagde til hans, hvort ert þu minn Son Esau? Hann svarade, Ja, eg er hann.

25. Þa sagde hann, Fær mier þa hingad, minn Son, og laat mig eta af þijnu Villu: brcade, so ad mijn Saal blesse þig. Þa bar hann honum þad, og hann aat. Hann bar honum og Vijn jnn, og hann drack.

26. Sijdann sagde hans Fader Isaac til hans, kom hier, Son minn, og kyss mig.

27. Og hann gieck ad honum og kyste hañ, þa kiennde hann Jlmenn af hans Klædum, og blessade hann og sagde. Sioa, mijns So: nar Jlmur er so sem Jlmur af þeim Akre hvorn DROTTJNN hefur blessad.

28. GUD giefe þier af Doggu Himens, og af Feite Jardar, og nægd Korns og Vijns.

29. Þioder skulu þiona þier, og Folked skal falla þier til Foota. Vertu einn Herra yfer þijnum Brædrum, og Born þinnar Modur skulu falla þier til Foota. Bolvadur vere sa sem þier bolvar, og Blessadur sie sa sem þig blessar.

30. Og sem Isaac hafde endad þessa Bles: san yfer Jacob, og Jacob var sem naumast utgeingenn fra sijnum Fodur Isaac, þa kom

Esau hans Broder heim fra sijnum veideskap.
31. Og hann tilreidde og so eina Fædslu, og bar jnn til sijns Fodurs, og sagde til hans, Rijs upp minn Fader, og et af Villubraade þijns Sonar, so ad þijn Önd meige blessa mier.
32. Pa svarade Isaac hans Fader, Hvor ert þu? hann svarade, eg er Esau þinn Frumgietne Sonur.
33. Isaac vard hardla miøg felms fullur, og sagde, Hvad? Hvar er þa sa Veidemadur sem mier færde, og eg aat þar af ádur þu komst? Og eg blessade honum, og hann nun vera blessadur.
34. Sem Esau heyrde þesse sijns Fodurs Ord, hrópade hann hárre Roddu, og vard yfer máta Sorgfullur, og sagde til sijns Fodurs, Blessa þu mier og so, Fader minn.
35. Hann svarade, þinn Broder kom med kiænsku, og tok j burtu þijna Blessan.
36. Pa sagde hann, riettelega er hans Nafn Jacob, þvi hann hefur nu j tvær Reisur under (a) Footum troded mig. Mijna Frumgietning tok hann burt, og sia, nu tekur hann og so mijna Blessan. Og hann sagde, hefur þu þa ecke ætlad mier epter neina Blessan?

(a) (Jacob; footum troded) Ekeb, heiter Footsoole, þaraf kemur Jakob, edur Jaacob Foottrodande, edur sa sem under Fætur tredur, og merker alla þa sem trua, hvorier syrer Evangelium under Footum troda Verølldena, Hollded og Diøfulenn med Synd og Dauda, j Krapte Christi. Ebr. 11, 20.

37. Isaac svarade og sagde til hans, eg hefe sett hann til eins Herra yfer þig, og alla hans Brædur giørde eg til hans Þienara, eg hefe og sied honum fyrer Korne og Vijne, hvad skal eg nu giøra þier, minn Son?
38. Esau sagde til sijns Fodurs, hafder þu ecke utann þa eina Blessan, minn Fader? Blessa mig og so, minn Fader. Og * hann upphoof sijna Raust og griet. * Ebr. 12, 17.
39. Pa svarade Isaac hans Fader, og sagde til hans, sia þar, þu skallt hafa einn feitann Bustad a Jordunne, og af Døggu Himensins hier ofann ad.
40. Af þijnu Sverde skalltu næra þig, og þiona muntu þijnum Brodur. Og þad nun skie, ad þu munt verda einn Herra, og munt sa slited hans Ok af þijnum Haalse.
II. 41. Og Esau vard reidur vid Jacob sokum þeirrar Blessanar sem hans Fader hafde blessad hann med, og hann sagde j sijnu Hiarta, su Stund skal snarlega koma ad minn Fader skal graata, þvi eg vil slaa Jacob minn Brodur jhel.
42. Og Rebecka fieck þad ad vita, ad Esau hennar elldre Son hafde so sagt, þvi sende hun j burt, og liet kalla sinn yngra Son til sijn, og sagde til hans, sia, þinn Broder Esau heitast vid þig, ad hann vilie lijflaata þig.
43. Pvi heyr þu nu mijn Ord, minn Son, tak þig upp og fly til mijns Brodurs Laban j Haran.
44. Og vert um Stund hia honum, þar til ad sefast Grimmd Brodur þijns,
45. Og þar til hans Reide, sem hann hefur til þijn, snyst fra þier, og hann gleymer þvi sem þu hefur giort a moote honum, sijdann vil eg senda þier Bod, og hafa þig burt þadan, þvi skal eg missa yckur bææda a einum Deige?
46. Og Rebecka sagde til Isaac, mier leidest ad lifa vegna þeirra Heths Dætra, ef ad Jacob tekur sier Eigennkonu af þeim Heths Dætrum, þær sem eru med soddann hætte sem þessa Lands Dætur, þvi skyllde eg þa leingur lifa?

## XXVIII. Capitule.

Jakob fier a Ferd sinne einn Stiga sem nær til Himens.

Pa kallade Isaac Jacob Son sinn fyrer sig, og blessade hann, baud honum og sagde til hans, þu skallt ecke taka þier neina Eigennkonu af þeim Canaans Dætrum.
2. Helldur tak þig upp, og far j Mesopotamiam, til Bethuels þijns Modurfodurs Huss, og tak þier þar Eigennkonu til Handa af Dætrum Laban, þijns Modurbrodurs.
3. Almattugur Gud blesse þig, og giøre þig

þig auvaxtarsamann, og margfallde þig, so þu verder til eins mikels Folks.

4. Hann giefe þier Abrahams Blessan, þier og þijnu Sæde med þier, so ad þu eignest þad Land j hvoriu þu ert framande, hvort GUd gaf Abraham.

5. So sende Jsaac Jacob þangad, og liet hann fara j Mesopotamiam til Labans Bethuels Sonar j Syrien, hvor ad var Broder Rebeccu Modur hans og Esau.

6. Enn sem Esau sa þad, ad Jsaac hafde blessad Jacob, og sendt hann til Mesopotamiam, ad hann skyllde giptast þar, og hann hafde under eins blessad hann, boded honum, og sagt so, þu skallt ei taka þier Eigenkonu af Canaans Dætrum,

7. Og ad Jacob var sijnum Fodur og Modur hlydugur, og foor burt j Mesopotamiam.

8. Hann sa og eirnenn, ad sijnum Fodur Jsaac var ecke um þær Canaans Dætur,

9. Pa gieck hann burt til Jsmael, og tok sier til Eigennkonu Dottur Jsmaels, Abrahams Sonar, Mahalath, Syster Nebajoth, ad auk þeirra Kvenna sem hann aatte aadur.

10. Enn Jacob foor fra BerSaba, og reiste til Haran.

11. Og hann kom j nockurn Stad, þar var hann um Nott, þviad Solenn var undergeingenn. Og hann tok einn Stein j þeim sama Stad, og lagde hann under sitt Hofud, og lagde sig til Svefns j þeim sama Stad.

12. Og hann dreymde, og sia þu, Einn Stijge stod aa Jordu, hvors efsta bust naade upp til Himenenns, og sia, GUds Einglar fooru upp og ofann epter honum.

13. Og DROTTinn stood þar upp yfer, og sagde, eg er DROTTinn GUd þijns Fodurs Abrahams, og GUd Jsaacs, þetta Land, a hvoriu þu liggur nu, vil eg giefa þier og þijnu Sæde,

14. Og þitt Sæde skal verda sem Dupt aa Jordunne, og þu skallt utbreidast til Vesturs og Austurs, Nordurs og Sudurs, og j þier og þijnu Sæde skulu allar Pioder aa Jordunne blessast.

15. Og sia þu, eg er med þier, og eg vil vardveita þig hvort sem þu fer, og eg vil færa þig j þetta Land aptur, þvi eg vil ecke yfergiefa þig, fyrr enn eg hefe fullkomnad þad allt sem eg hefe sagt þier.

16. Og sem Jacob vaknade af sijnum Svefne, sagde hann, Sannliga er Drottenn j þessum Stad, og eg visse þad ecke.

17. Hann ottadest og sagde, hvorsu (a) heilagur er þesse Stadur? Hier er ecke annad enn GUds Hus, og hier er Hlid Himens.

(a) Ogurleaur.

18 Og Jacob stood upp snemma Morguns, og tok þann Stein sem hann hafde lagt under sitt Hofud, og reiste hann upp til eins Marks, og hellte Vidsmiore yfer hann.

19. Og hann kallade þann sama Stad BethEl, aadur hiet sa Stadur Lus.

20. Og Jacob streingde eitt Heit, og sagde, ef GUd er med mier, og vardveiter mig a þessum Veige sem eg nu ferdast, og giefur mier Braud ad eta, og klæder mig,

21. Og færer mig heim aptur til mijns Fodurs Huss med Fride, þa skal DROTTinn vera minn GUd.

22. Og þesse Steinn, sem eg hefe nu uppreist til eins Teikns, skal verda GUds Hus, og eg vil færa þier Tijunder, af ollu þvi sem þu giefur mier.

## XXIX. Capitule.

(I) Jakob giptest tveimur Labans Dætrum; (II) Þannur þeirra fæder honum Syne.

I. Sijdann upplypte Jacob sijnum Fotum, og gieck j þad Land sem liggur til Austurs.

2. Og hann skygndest umkring, og sia, þar var einn Vatnsbrunnur a Akrenum, og sia, þar laau hia Brunnenum þrennar Saudahiarder, þvi þeir voru vaner ad vatna Hiordunum af Brunnenum, þar la og einn

stoor Steirn ofann yfer Munna Brunnsins.
3. Og þeir plogudu ad safna allre Hiordunne þangad, og vellta so Steinenum af Brunnenum, og vøtnudu Fienu, logdu sijdann Steinenn aptur yfer Brunns Munnann sem hann lꝏ ꝏdur.
4. Og Jacob sagde til þeirra, Kiærer Brædur, Hvadann erud þier? Þeir svꝏrudu, vier erum af Haran.
5. Hann sagde til þeirra, þecked þier ecke Laban Nahors Son? Þeir svꝏrudu, Joa, vel þeckium vier hann.
6. Hann sagde, geingur honum vel? Þeir svꝏrudu, vel geingur honum, sioa, þar kiemur hans Dotter Rachel med hans Saude.
7. Þa mællte Jacob, miked er enn Dags epter, og er ei Mꝏl ad reka Fied heim, Vatned Saudunum, fared sijdann ad beita þeim,
8. Þeir svꝏrudu, vier meigum ecke fyrr enn oll Hiordenn kiemur til samans, so vier gietum vellt Steinenum fra Brunnenum, og vatnad so Saudunum.
9. Og sem hann rædde þetta vid þa, kom Rachel med Saude sijns Fodurs, þvi hun giætte þeirra.
10. Enn sem Jacob sa Rachel Dotter Labans sijns Modurbrodurs, og Saude Labans sijns Modurbrodurs, foor hann til, og vellte Steinenum af Munna Brunnsins,
11. Og vatnade Saudum Labans Modur Brodurs sijns, hann mynntest vid Rachel og griet hꝏtt,
12. Og sagde henne, ad hann være hennar Fodurs Broder, Rebeccu Son, enn hun hlioop og sagde þetta sijnum Fodur.
13. Enn sem Laban heyrde um Jacob sinn Systur Son, rann hann ut ꝏ moote honum, og tok hann sier j Fꝏng, og mynntest til hans og filgde honum jnn j sitt Hus.
14 Þa kunngiorde hann Laban allt þetta efne. Og sagde Laban til hans, nu vel, þu ert mitt Bein og Hold. Og sem hann hafde nu vered med honum einn Mꝏnud,
15. Þa sagde Laban til Jacobs, þo ad þu siert minn Broder, skyllder þu fyrer þvi þiona mier fyrer eckert? Seig þu til hvad þitt Verdkaup skal vera.
16. Laban ꝏtte tvær Dætur, Su elldre hiet Lea, enn yngre hiet Rachel,
17. Lea var Augndopur, enn Rachel var væn og frijd.
18. Og Jacob fieck elsku til Rachelar, og sagde, Eg vil þiona þier j siø ꝏr fyrer Rachel þijna yngre Dottur.
19. Laban svarade, Þad er betra eg giefe þier hana, helldur enn einum ødrum, Vertu hiꝏ mier.
20. So þionade Jacob j siø ꝏr fyrer Rachel, og syndest honum sem fꝏer Dagar være, so mikla ꝏst hafde hann a henne.
21. Epter þad sagde Jacob til Laban, Gief mier nu mijna Kvinnu, þvíad tijmenn er nu komenn, ad eg skule ganga jnn til hennar.
22. Þa baud Laban ollu Folke j þeim stad, og giorde Brudkaup.
23. Enn um Kvollded tok hann sijna Dotter Lea, og leidde hana jnn til hans, Og hann lꝏ hiꝏ henne.
24. Og Laban gaf Lea sinne Dottur sijna Þionustu stulku Silpa henne til Ambꝏttar.
25. Enn um Morgunenn, Sioa, þa var þad Lea. Þa sagde hann til Labans. Hvar fyrer hefur þu so giort vid mig? Hef eg ecke þionad þier fyrer Rachel? Þvi hefur þu so sviked mig?
26. Laban svarade, Þad er ecke Sidur j voru Lande, ad þær enu yngre sieu utgiefnar fyrr enn þær elldre,
27. Halltu ut vikuna med henne, so vil eg eirnenn giefa þier adra, fyrer þa þionustu sem þu skallt þiona mier enn j onnur siø ꝏr.
28. Jacob giorde so, og hiellt þa Viku ut. So gaf hann honum Rachel sijna Dottur til Hwsfrw.
29. Og hann gaf Rachel sinne Dottur Ambꝏtt sijna Bilha til Ambꝏttar.
30. So gieck hann lijka jnn til Rachelar, og elskade hana meir enn Lea, og þionade hiꝏ honum onnur Siø ꝏr fyrer hana.

II. 31. Enn er DRottinn sa, ad Lea var i fyrerlitenn, þa giörde hann hana Avaxtarsamlega, Enn Rachel var Obyria

32. Og Lea vard oliett, og fædde eirn Son, og kallade hann (a) Ruben, og sagde, DRottinn hefur sied til minnar Eymdar, Nu mun minn Madur elska mig.

(a) Ruben þydest Skodunar Sonur.

33. Og hun vard enn j annad sinn oliett, og fædde eirn Son, og sagde, DRottinn hefur heyrt ad eg er forsmaad, og hefur giefed mier og so þennann, og hun nefnde hann Simeon. (b)

(b) Simeon kallast Heyrare.

34. Og enn aptur vard hun oliett, og fædde eirn Son, og sagde, Nu skal minn Madur hallda sig aptur til mijn, þvi eg hefe fædt honum þria Sonu, og þvi kallade hun þann sama Levi. (c)

(c) Levi, Vidaukenn.

35. Sijdann vard hun j fiorda sinn oliett, og fædde einn Son, og sagde, Nu vil eg þacka DRottne, Þar fyrer kallade hun hann Juda, (d) og hun liet af ad eiga Born.

(d) Juda, Medkennare.

## XXX. Capitule.

(I) Börn Jakobs og (II) Audur.

I. Sem ad Rachel sa ad hun ætte ecke Born vid Jacob, þa hatade hun sijna Systur, og sagde til Jacobs, Gief þu mier Born, sie annars, þa mun eg deya.

2. Um þetta vard Jacob miog reidur vid Rachel, og sagde, Eige em eg Gud, sem ecke vill giefa þier Avoxt þijns Kvidar.

3. Þa sagde hun, Siaa, Þar er mijn Ambaatt Bilha, legstu med henne, so hun meige fæda a mitt Skaut, so eg meige verda uppbiggd af henne.

4. Og hun gaf honum sijna Ambaatt Bilha til Kvinnu. Og Jacob lagdest med henne.

5. Og hun vard oliett, og fædde Jacob einn Son.

6. Þa sagde Rachel, DRottinn hefur dæmt mijna sök, og heyrt mijna Raust, og giefed mier einn Son, og þvi kallade hun hann (a) Dan.

(a) Dan kallast Domur.

7. J annad sinn vard Bilha Rachels Ambaatt oliett, og fædde Jacob annann Son.

8. Þa sagde Rachel, Gud hefur skipt um med mier og minne Systur, ad eg geing nu yfer hana, og kallade hann (b) Nephthali.

(b) Nephthali kallast um breitt, umskipt.

9. Sem Lea sa nu ad hun liet af ad eiga Born, þa tok hun sijna Ambaatt Silpa, og gaf hana Jacob til Eigennkvinnu.

10. So fædde Silpa Leæ Ambaatt Jacob einn Son,

11. Þa sagde Lea, Tyadur, og kallade hann (c) Gad.

(c) Gad kallast vtbuenn til Strijds.

12. Þar epter fædde Silpa Leæ Ambaatt Jacob einn annann Son,

13. Þa sagde Lea, Sæl em eg, þvi Dæturnar skulu prijsa mig sæla ad vera. Og hun kallade hann (d) Asser.

(d) Asser kallast Sæll.

14. Og Ruben gieck þangad sem Menn voru ad hyrda Hveite, og fann (e) Dudaim a Akrenum, þad bar hann heim til sinnar Modur Lea. Þa sagde Rachel til Lea, Gief mier nockud af Dudaim þijns Sonar.

(e) (Dudaim) Liliugras edur Ber, okiend j Nordurlondum; sumer kalla Gydinga lands kirseber, sem vaxa'a mote Hveitis hausturkiunne.

15. Hun svarade, er þier þad ecke nog, ad þu hefur teked minn Mann fra mier, og nu villtu taka mijns sonar Dudaim? Rachel svarade, Nu vel, laattu hann sofa hiaa þier j Nott fyrer Dudaim þijns Sonar.

16. Og sem Jakob kom heim ad Kvolldе af Akre, þa gieck Lea vt j mot honum, og sagde, Þu skallt sofa hiaa mier j Nott, þviad eg hefe keypt þig fyrer mijns Sonar Dudaim. Og so svaf hann hiaa henne þa Nott,

17. Og Gud bænheyrde Leam, Og hun vard þungud, og fædde Jacob þann fimmta Son,

18. Og sagde, Gud hefur launad mier, fyrer þad eg gaf mijna Ambaatt mijnum Manne, Og þann kallade hun (f) Isaschar.

(f) Isaschar kallast Laun.

19. Og Lea vard enn þungud, og fædde Jacob þann siotta Son,

20. Og sagde, Gud hefur vel forsied mig, og nu mun minn Mann optur bwa vid mig, þvi eg hefe fædt honum sex Sonu, Og hun nefnde hann (g) Sebulon.

(g) (Sebulon) Hiabwonadyr.

21. Epter þetta œtte hun eina Dotter, hana nefnde hun (h) Dina.

(h) Dina merker Søk eder Dom.

22. DRottinn minntest þa a Rachel og bænheyrde hana, og giørde hana Avaxtar sama,

23. Og hun vard þungud, og fædde einn Son, og sagde, Gud hefur burttekeð mijna Smœan.

24. Hun nefnde hann (i) Joseph, og sagde, DRottinn giefe mier nu einn annann Son til þessa.

(i) Joseph kallast Aukning edur Voxtur.

II 25. Sem Rachel hafde fædt Joseph, þa sagde Jacob til Laban, Lœt mig nu fara burt til mijns Samastadar j mitt Land,

26. Og gief mier mijnar Kvinnur og Born, hvar fyrer eg hefe þionad þier, ad eg meige nu ferdast, þvi þu veitst hvornenn eg hefe þionad þier.

27. Þa svarade Laban honum, Lœt mig finna Nœd fyrer þijnum Augum, Af reynslu hef eg numed, ad DRottinn blessar mig fyrer þijnar saker,

28. Enn þu akvarda sialfur hvort Verkkaup ad eg skal giefa þier.

29. Jacob svarade honum, Þu veitst hvorsu eg hefe þionad þier, og hvad fyrer Fie þu œtt under mier.

30. Þu œtter lijted adur eg kom hingad, eñ nu er þad margfalldlega wtbreidt og Drottinn hefur blessad þig fyrer minn Foot (k). Og nu, nær skal eg og so forsorga mitt eiged Hwœs?

(k) (Fyrer minn Foot) þad er, Eg vard ad hlaupa og skiøkta hingad og þangad, so þu kynner ad verda so rijkur, Minn Footur hlaut þad ad vinna.

31. Hann svarade, Hvad skal eg þa giefa þier? Jacob mœllte, Þu skallt ecke giefa mier neitt, Enn ef þu villt giora þad sem eg seige þier, þa vil eg enn framnveigis fæda og geyma Saude þijna.

32. Eg vil j Dag ganga j giegnum alla þijna Hiord, og fraskilia allt Fleckott og misslitt Fie, og alla svarta Saude a medal Lambanna, og þær fleckottu og misslitu Geitur, Hvad þa þar epter verdur fleckott og misslitt, þad skal vera mitt Verkkaup,

33. So skal mijn Riettvijse vitne bera mier j Dag eda morgun, þegar þar kiemur, ad eg skal taka mit Verkkaup af þier, so ad hvad sem ecke er fleckott, eda misslitt, eda ecke verdur svart, a medal Lambanna og (l) Geitanna, þa skal þad vera stulldur hioa mier.

(l) Lœt þig hier ei villa ad Moses kallar sma-fienadenn stundum Geitur, stundum Lomb, stundum Hrwta, epter Ebreskre mœllisku, þviad hann villdi so mikid sagt hafa, ad Jacob hefe hioa sier hast allt hvijtt Fie, enn svart og misslitt allt fieck hann Laban: Og þad sem fleckott yrde, undann einlitum berfienade þad skyllde vera hans Laun: Þessum skilmœla vard Laban feigenn, og hafde nœtturuna fyrer sier ad ei munde margt fleckott fædast af einlitum epter Nœttuuu edler: Enn Jacob stirkti nœtturuna med list, so einlitar Ær attu fiølda fleckottra lamba.

34. Þa sagde Laban, Sioa, þad skal so vera sem þu hefur sagt.

35. Og þann sama Dag skilde hann fra alla fleckotta og misslita Hrwta, og alla fleckotta og misslita Geitsaude, þar sem nockurstadar fannst hvijtur fleckur uppa, og allt þad sem var svart, a medal Lambanna, þetta afhende hann sijnum Sonum j Hendur,

36. Og hann liet þriggia Daga leid vera j millum sijn og Jacobs. So geymde Jacob Labans Hiord, þad sem ad afgangs var.

37. Enn Jacob tok sier stafe af grænu Popeltrie, Harslvide og Castaniu trie, og skoof hvijtar rœker þar uppa,

38. Og lagde so stafena, sem hann hafde skafed Borkenn af, j Vatnsrennurnar, so ad þad hvijta og Stofunum var bert fyrer Hiordenne,

denne, sem þangad hlaut ad koma til ad drecka, ad hun skyllde faa Lamba j þvi bile, nær hun kiæme ad drecka.

39. Og so fieck Hiordenn Lamba upp yfer stofunum, og fædde fleckott, diilott, og mislitt.

40. So fraskillde Jacob Lombenn, og skickade þa fraskildu Hiord til þeirrar fleckottu og svortu j Labans Hiord, og giorde sier sialfum eina sierdeilis Hiord, og liet hana ecke koma saman vid Labans Hiord.

41. Enn þegar Hiordenn gieck snemma, þa lagde hann stafena j Rennurnar, fyrer Augu Hiardarennar, so ad hun skyllde faa j þvi bile er hun horfde a stafena.

42. Enn fyrer þær sem siidla geingu, lagde hann þa ecke. So vard Labans þad sem siidbored var, Enn Jacobs þad snemmborna.

43. Og af þessu vard Madurenn stor-audugur, so ad hann hafde fiolda Sauda, Ambatter og Præla, Ulfallda og Asna.

## XXXI. Capitule.

(I) Jacob flyr med Konum sijnum og Bornum burt fra Laban, sem (II) giorer Sattmaala vid Jacob.

I. Og Jacob heyrde Ord Labans Sona, þeir ed sogdu, Jacob hefur komest yfer Aleigu vors Fodurs, og af vors Fodurs eigu er hann so vellrijkur ordinn.

2. Jacob saa og a Labans yferbragde, Og sioa, þad var ecke so vid hann sem j giær og fyrra dag.

3. Þa sagde DRottinn til Jacobs, Hverf aptur j þitt Fostur land, og til þinnar ættar, Eg vil vera med þier.

4. Þa sende Jacob, og liet kalla þær Rachel og Lea vt a Morkena, þar hans Hiord var, og sagde til þeirra,

5. Eg sie ad yckar Fodurs yferbragd er ecke vid mig so sem þad var j giær og j fyrra dag, Enn Gud mijns Fodurs hefur vered med mier.

6. Og þid vited, ad eg hefe þionad yckrum Fodur af ollu mijnu megne,

7. Og hann hefur svikid mig, og tijusinnum hefur hann skipt um mijn laun, Enn Gud hefur ecke lofad honum ad giora mier skada.

8. Þa hann sagde, þad fleckotta skal vera þitt Verkkaup, þa fædde oll Hiordenn fleckott Lomb, Og þa hann sagde, þad mislita skal vera þitt Verkkaup, þa fædde oll Hiordinn mislitt.

9. So hefur Gud teked fra yckar Fodur hans eign og giefed mier.

10. Þviad nær tijmenn kom, ad Berfied skyllde faa Lambanna, upplypte eg mijnum Augum, og eg saa j Svefne, og sioa þu, ad fleckotter, diilotter og misliter Hrutar stucku upp a Hiordena.

11. Og Guds Eingell sagde til mijn j Svefne, Jacob! Og eg svarade, hier er eg.

12. Enn hann sagde, Leat upp þijn Augu og sioa, ad þeir fleckottu, diilottu og mislitu Hrutar stockva upp a Hiordena. Þvi eg hefe sied allt þad sem Laban hefur giort þier,

13. Eg er sa Gud j BethEl, þar sem þu smurder Steinenn, og giorder mier þar eitt heite, Tak þig nu upp, og far burt af þessu Lande, og hverf aptur til þinnar Ætt-jardar.

14. Þa svorudu þær Rachel og Lea, og sogdu til hans, Vid eigum nu ongva deilld, eda nockurn Arf epter j ockar Fodurs huse.

15. Hefur hann ecke hallded ockur so sem annarlegar? Þviad hann hefur sellt ockur, og eydt ockar verde.

16. Þar fyrer hefur Gud teked vors Fodurs Rijkdom, og giefed ockur og ockar Bornum, Gior nu allt þad sem Gud hefur boded þier.

17. Jacob tok sig upp, og sette sijn Born og Kvinnur upp a Ulfallda,

18. Og hafde j burt allar sijnar Hiarder, og alla þa Fiaarhlute sem honum hofdu aflast j Mesopotamia, ad hann fære til sijns Fodurs Isaacs, j Canaans Land.

19. (Enn Laban var geingenn ad klippa Saude sijna, og Rachel stal j burt Skurgodum sijns Fodurs.

20. So

20. So (a) stal Jacob Hiarta Labans hins Syrlendska, j þui, ad hann sagde honum ecke, ad hann flyde.

(a) (Stal) Ad stela Hiarta, er Ebreskt mǽltæke, og er so m kid, sem ad giora nockud ǽan annars vi tundar.

21. So flydde hann j burtu þadann med ollu þui honum tilheyrde, tok sig upp, og foor yfer um Flioted, og sette sijna Leid til Fiallsins Gilead.

22. A hinum þridia Deige þar epter friette Laban, ad Jacob var j burt flyenn.

23. Og hann tok sijna Brædur til sijn, og for epter honum sio dagleider, og nǽde honum a Fiallenu Gilead.

24. Enn Gud kom til Labans þess Syrlendska, um Nottina j Svefne, og sagde til hans, varast þu ad tala annars vid Jacob enn vinsamlega. Og Laban nǽlgadest Jacob.

25. Enn Jacob hafde sett sijnar Tialldbuder a Fiallenu. Laban sette sijn Tiolld þar med sijnum Brædrum, a sama Fialle Gilead.

26 Pa sagde Laban til Jacobs, Hvad hefur þu giort, ad þu stalst mijnu Hiarta og burtflutter mijnar Dætur, lijka sem þær hefde verid herteknar med sverde?

27. Hvar fyrer flyder þu so heimuglega? Og stalst þig so j burt, og sagder mier þad ecke ǽdur, so ad eg hefda mǽtt filgia þier a leid med fagnade, med saungleik, Bumbum og Horpum?

28. Pu liest mig eige helldur mynnast vid mijn Born og Dætur, nu, þu hefur giort fǽvijslega.

29. Og eg hefe so mikla Magt, ad eg giet vel giort þier illt, Enn ydars Fodurs Gud sagde til mijn i Giær, Varast þu ad mæla vid Jacob annad helldur enn vinsamlegt.

30. Og epter þvi þu villt ei annad enn a burt fara, og þig langar so miog heim til þins Fodurs hwss, Þvi hefur þu þa stoled mijnum Godum?

31. Jacob svarade og sagde til Labans, Eg uggda, og hugsade ad þu munder slijta þijnar Dætur fra mier.

32. Enn hiǽ hverium þu finnur þijn God hann skal hier deya fyrer vorum Brædrum. Leitadu þijns hiǽ mier, og tak þad burt (Enn Jacob visse ecke ad Rachel hafde burt stoled þeim.)

33. Pa gieck Laban jnn j Jacobs Tialld, og j Tialld Lea, og j beggia Ambǽttanna Tialldbwd, og fann eckert. Og hann gieck wr Lea tiallde, og j tialld Rachelar.

34. Pa tok Rachel Godenn og lagde þau under strǽbreidu Ulfalldanna, og settist þar a ofan. Enn Laban rannsakade allt Tiallded og fann ecke par.

35. Pa mællte hun til sijns Fodurs, Minn Herra, reidst mier ecke, þo eg giete ecke rised upp j mote þier, þviad kvennleg edlis Sott er komenn ad mier. Og hann fann ecke Godenn, hvorsu miog sem hann rannsakade.

36. Pa reiddest Jacob, deillde a Laban, og sagde til hans, Hvad hef eg misgiort edur broted, ad þu ert mier so gramur?

37. Pu hefur rannsakad alla mijna Bwshlute, Hvad hefur þu nu hier funded af allre þinne Eign? Legg þad hier framm fyrer mijna og þijna Brædur, ad þeir dæme a millum ockar.

38. Eg hefe vered hiǽ þier j tuttugu ǽr, þijner Sauder og Geitur þijnar hafa ecke vered ofriosar, Hrwta Hiardar þinnar hef eg ecke eted,

39. Hvad sem rifed var af Dyrønum bar eg ecke heim til þijn, Helldur hlaut eg þad ad bitala, og þu krafder þess af minne Hende, hvort þad var helldur stoled a Nottu eda Deige fra mier.

40. Eg vanmegnadest um Daga af Hita, enn um Nætur af Kulda, og þar kom eingenn Svefn a mijn Augu.

41. So hef eg nu þesse Tuttugu ǽr þionad j þijnu Huse, Fiortan ǽr fyrer þijnar Dætur,

tur, og Sex oar fyrer þijna Hiord. Og þu hefur Tijusinnum skipt um mitt Verkkaup.

42. Hefde ecke mijns Fodurs GUD, Abrahams GUD, og Isaacs (b) Otte, hallded med mier, þa hefder þu l☐ated mig snaudann fra þier fara. Enn GUD leit a mijna Neyd og mijna Mædu, og hann straffade þig j giær.

(b) (Otta) Jacob kallar GUd Isaacs otta, af þvi ad Isaac ottadist GUd, og var GUds Þienare.

II. 43. Laban svarade, og sagde til Jacobs, þessar Dætur eru mijnar Dætur, og þesse Born eru mijn Born, og þesse Hiord er mijn Hiord, og allt þad þu sier þad er mitt, hvad kann eg giora mijnum Dætrum j Dag, eda þeirra Bornum, sem þær hafa fædt?

44. So kom nu, lꜳtum ockur giora einn Sꜳttmꜳla, mig og þig, sem skal vera til eins Vitnisburdar millum mijn og þijn.

45. Þa tok Jacob einn Stein, og reiste hann upp til eins merkis.

46. Og hann sagde til sinna Brædra, safned Steinum samann. Og þeir bꜳru Steina samann, og giordu eina Griot-hrugu, og þeir snæddu a þeirre Hrugu.

47. Og Laban kallade hana Jegar Sahadutha, enn Jacob kallade hana (c) Gilead.

(c) (Gilead) Vitnisburdarhruga; og merker Ritningena, j hvorre ad eru marger Vitnisburder um GUd.

48. Þa sagde Laban, þesse Steinhruga skal vera einn Vitnisburdur j millum mijn og og þijn, þar fyrer kallast hun Gilead og Mizpah, (d)

(d) (Mizpah) Sionarhæd.

49. Þvi hann sagde, DRottinn hann skode millum mijn og þijn, nær vid skilium hier.

50. Ef þu giorer mijnum Dætrum nockud grand, edur ef þu tekur þier adrar Kvinnur ad auk minna Dætra. Hier er eingenn Madur hiꜳ ockur, enn siꜳ þu, GUd er Vitned millum mijn og þijn.

51. Og Laban sagde enn framar meir til Jacobs, siꜳ, þad er su Steinhruga, og þad er þad merke sem eg hefe uppreist millum mijn og þijn.

52. Su sama Steinhruga skal vera Vitne, og þad Teikn skal og vera Vitne, ef eg fer hier yfer til þijn, eda þu til mijn, yfer þessa Steinahrugu og þetta merke, til ad giora Skada.

53. Abrahams GUd, og Nahors GUd, og þeirra Forfedra GUd skal vera Domare millum ockar. Og Jacob soor honum Eyd, vid sijns Fodurs Isaacs Otta,

54. Og Jacob færde Foorner a Fiallenu, og baud sijnum Bræd rum til snædings, og sem þeir hofdu Matar neytt, voru þeir þar uppa Fiallenu um Nottena.

55. Arla Morguns stod Laban upp, og mynntest vid sijn Born og sijnar Dætur, og blessade þau, og for j burt, og kom heim aptur til sijns Stadar.

1. Enn Jacob for leid sijna, og GUds Einglar mættu honum.

2. Og sem hann sꜳ þa, sagde hann, Þeir eru GUds Herlid, og kallade þann sama Stad (e) Mahanaim.

(e) Mahanaim, þad er herbuder.

## XXXII. Capitule.

(I) Otte Jakobs; (II) Bæn; og (III) Glijma.

3. Jacob sende bod undann sier til mots vid Esau Brodur sinn, j Landed Seir, j þvi Hierade Edom.

4. Og hann baud þeim og sagde, Seiged so mijnum Herra Esau, þinn Þienare Jacob lætur seigia þier, Eg hefe til þessa vered leinge utan Lands med Laban.

5. Og hefe Uxa og Asna, Saude, Þræla og Ambꜳtter, og sende eg nu til fundar vid þig, ad eg villda kunngiora þetta mijnum Herra, so eg mætte finna Nꜳd fyrer þijnu Auglite.

6. Sendemenn komu aptur til Jacobs, og sogdu, Vier komum til þijns Brodurs Esau, hann fer j moote þier med Fiogur Hundrud Manns.

7. Þa ottadest Jacob hardla miog, og vard miog kvijdande. Og hann skipte j tvo Stade forunevte sijnu sem med honum var, og

Nautum og Saudum og Ulfolldum j tvær Fylkingar,

8. Og hann sagde, ef Esau kiemur til eins Flocksins, og drepur hann, þa ma sa annar Flockurenn komast undann.

II. 9. Og enn sagde Jacob, DROTtinn mijns Fodurs Abrahams GUd, og mijns Fodurs Isaacs GUd! þu sem h. fur sagt til mijn, Far aptur j þitt Land, og til þinnar Ættar, eg vil giora þier gott.

10. Minne er eg allre þeirre Miskun, og ollum þeim Sannleika sem þu hefur veitt þijnum Þienara (þvi eg hafda ecke meir enn þennann Staf, þa eg foor yfer um þessa Jordan, Enn nu er eg ordenn ad tveimur Fylkingum.)

11. Frelsa mig fra mijns Brodurs Hende, fra Hende Esau, þvi eg hrædunst fyrer honum, ad hann mune koma og sloa mig, Mædurnar, og so Bornenn.

12. Þu hefur sagt, eg vil veita þier Velgiorninga, og giora þitt Sæde so sem Sioar Sand, hvor ed ecke verdur talenn fyrer fiolda saker.

13. Og hann var þar um Nottena, og tok af þvi sem hann hafde hioa sier, Goafur, til handa sijnum Brodur Esau,

14. Sem var Tvo Hundrud Geitur, Tuttugu Kiarnhafrar, Tvohundrud Asaudar, Tuttugu Hrutar,

15. Og þriatiju mylker Ulfalldar med þeirra Folalldum, Fiorutiju Kyr, og Tiju Uxar, Tuttugu Osnar med Tiju Fylum.

16. Og hann fieck þetta j Hendur sijnum Þienorum, Joa, hvoria Hiord sier j lage, og sagde til þeirra, fared undann mier, og loated vera bil j millum Hiardanna.

17. Og hann baud þeim Firsta og sagde, þegar minn Broder Esau mæter þier, og spyr, Hvorium heyrer þu til? Og hvort villt þu fara? Eda hvor a þetta sem þu rekur undann þier?

18. Þa skalltu seigia, þetta heyrer til þijnum Þienara Jacob, og hann sender sijnum Herra Esau þetta til eirnrar Goafu, og hann kiemur hier sioalfur epter oss.

19. Lijka so skipade hann hinum odrum, og so þeim þridia, og so ollum þeim sem filgdu Hiordinne, og sagde, þier skulud seigia til Esau, þa þier mæted honum, so sem eg hefe bodid ydur.

20. Seiged og eirnenn so, sioa, þinn Þienare Jacob fer hier epter oss. Þvi hann þeinkte, eg vil blijdka hann med þessum Goafum, sem fara undann mier, þar epter vil eg sioa hann, skie moa ad hann take j moote mier blijdlega.

III. 21. So fooru Goafurnar undann honum, enn hann var þa somu Nott hioa sijnum Flocke.

22. Og hann stood upp um Nottena, og tok boadar sijnar Eigennkonur, og þær tvær Amboatter, og sijn ellefu Born, og foor til Vadsins Jaboc.

23. Tok þau, og færde þau yfer um Vatnsfallid, so ad yferum komst allt hvad hann hafde,

24. Og hann var epter alleina. Þa (a) fieckst Madur nockur vid hann, allt til þess ad Dagur var.

(a) (Fieckst) eda glijmde; Christur er sa Madur sem glijmde vid Jacob. Hos. 12, 4, 5.

25. Og sem hann sa ad hann gat ecke yfervunned hann, tok hann so hardt a Samteingingu lærlidsins, ad lærbeined gieck ur lide j þvi þa hann fieckst vid hann.

26. Og hann sagde, loat mig fara, þvi nu rennur upp Dagsbrun; hann svarade, ecke mun eg loata þig lausann, nema þu blesser mig.

27. Hann sagde, Hvad heiter þu? hann svarade, Jacob.

28. Hann sagde, Eige skalltu leingur kallast Jacob, helldur (b) IsraEl. Þviad þu hefur strijdt vid GUd og Mann, og fieckst Sigur.

b) Israel þydest Hofdinge edur Yfervinnare Guds, og dregst af Sara, sem þyder ad faa magt edur ad yfervinna, Sar Hofdingi, Sara Hofdingia Fru; þ. e. þann er Israel GUds Hofdinge, þviad j Krossins baraattu læra Menn med Trunne rett ad þeckia og vinna GUd; sijdann geingur Solenn upp og er allt hættulaust.

29. Og

29. Og Jacob spurde hann ad, og sagde, seig þu mier, Hvad heiter þu? Hann svarade, þui spyr þu epter mijnu Heite? Og hann blessade hann, j þeim sama Stad.

30. Og Jacob kallade þann Stad (c) Pniel, þviad eg hefe sied GUD fra Andlite til Andlits, og mijn Ønd er frelst.

(c) Pniel merker GUds Auglit, edur Kynning.

31. Og er hann kom yfer um fra Pniel, þa rann honum Sol upp. Og hann var Halltur j Lærenu.

32. Þar fyrer eta ecke Israels Syner Afl-Sinar (j Lærenu) allt til þessa Dags, þui þa hrærnudu Afl-Sinar j Lære Jacobs.

## XXXIII. Capitule.

(I) Vinsamlegt vidmot Esau vid Jacob, og (II) um Ferd Jacobs til Canaan.

I. Jacob lypte sijnum Augum upp, og sea sinn Broder Esau komanda med Fiogur Hundrud Manns. Hann skipade sijnum Sonum til Lea, og til Rachel, og til beggia þeirra Ambœatta.

2. Og hann skickade Ambœattunum og þeirra Sonum fremst, þar næst Lea med sijnum Bornum, enn Rachel seinast med Joseph.

3. Og hann gieck framm undann þeim, og fiell Siosinnum til Jardar, þar til hann kom til sijns Broburs.

4. Esau rann j moote honum, og tok hann j Fœang sier, lagde Hendur um Hœals honum og kysste hann, og þeir grietu bœader.

5. Og hann lypte sijnum Augum upp, sœa Kvinnurnar med Bornunum, og sagde, Hvada Folk er þetta sem med þier er? Hann svarade, þetta eru Born þau sem GUd hefur giefed þijnum Þienara.

6. Og Ambœatternar geingu framm med sijnum Bornum, og lutu honum,

7. Lea gieck og framm med sijnum Bornum, og laut honum, þar epter gieck Joseph og Rachel framm, og lutu honum lijka.

8. Og hann sagde, Hvad villtu med allann þann Flock sem kom a mote mier? Hann svarade, ad eg meige finna Nœad fyrer mijnum Herra.

9. Esau sagde, Minn Broder, eg hefe noog, hafdu sialfur þijna Eign.

10. Jacob svarade, eige so, hafe eg nu funded Nœad fyrer þier, þa medtak nu þessa Gœafu af minne Hende, þvi eg sœa þijna Asionu, lijka sem eg hefde sied GUds Asionu, og lœat þier þetta vel þocknast af mier,

11. Og tak þessa blessan af mier, sem eg hefe fært þier, þvi GUd gaf mier þad, og eg hefe alldeilis noog epter, so neydde hann hann þar til, ad hann medtok þad.

12. Og hann sagde, lœatum oss fara aframm og ferdast, eg vil filgiast ad med þier.

13. Enn Jacob svarade honum, minn Herra, þu sier vel, ad eg hef ung Born medferdis, þar til med Fie og nybærar Kyr, ef so skiedur nu, ad þetta være reked til þrautar a einum Deige, þa mun øll Hiordenn deya fyrer mier.

14. Minn Herra ferdest undann sijnum Þienara, eg vil reka so (a) hægt a epter, so sem Fied og Børnenn gieta geinged, þar til ad eg kiem til mijns Herra j Seir.

(a) (Hægt) Athuga, ad þeir Riettrundu og hiner sem uppa sialfra sijn Verk treysta kunna ecke ad filgiast ad, þvi þeir Trundu fara saktmodlega framm med Trundum Anda, enn þeir Sialfheilegu briotast fram, stolande uppa sijna eigenn Giorninga.

15. Esau svarade, þa vil eg þo lœata epter hiœa þier nockra af þessum Mønnum sem eru med mier; hann svarade, Hvad giørest þess þorf? Lœat mig alleinasta finna Nœad fyrer mijnum Herra.

16. So ferdadest Esau þann sama Dag optur, þann rietta Veg til Seir.

II. 17. Og Jacob foor til Suchoth, og bigde sier þar eitt Hœs, giorde og Hreise handa sijnum Fienade, Og þvi kallast sa stadur Suchoth.

18. Epter þad for Jacob til Salem, j þa Borg Sichems, sem liggur j Canaans Lande, þa hann var komenn af Mesopotamia, og hann sette sijna Bygd utann stadar,

19. Og keypte eitt lijted Akurland af Bornum Hemors, Fodurs Sichems, fyrer Hundrad (b) Silfur Peninga, hvar hann sette sijna Tialldbud,

(b) Edur Saude.

20. Og uppbiggde þar eitt Alltare, og akallade þar Nafn þess Sterka Guds Jsrael.

## XXXIV. Capitule.

(I) Hemor bidlar til Dinu; hvers vegna (II) þeir Syner Jacobs eydeleggia Sichem.

I. Dina Dotter Lea, hvoria hun fædde Jacob, gieck vt, ad sioa þess Lands dætur.

2. Enn sem ad Sichem Sonur Hemor Hevita þess Lands Hofdingia, sa hana, tok hann hana med vallde, og la med henne.

[Þad skiede þa Jacob var 100. ára gamall, tveim árum áður enn Joseph var seldur.]

3. Og hans Hugur hneigdest miøg til hennar, og hafde hana hardla kiæra, og talade vinsamlega vid hana.

4. Og Sichem sagde til sijns Fodur Hemor, Tak mier þessa Stulku til Egtakvinnu.

5. Sem Jacob fornam ad hans dotter Dina var osæmd, enn hans Syner voru a Akre med sijnar Hiarder, var Jacob hliodur um þetta, þar til þeir komu heim.

6. Þa gieck Hemor Fader Sichems vt og fann Jacob, og talade vid hann.

7. Og j þvi bile komu Jacobs Syner af Akre, og sem þeir heyrdu hvad skied hafde, styggdust Mennerner þar vid, og urdu miøg reider, ad hann hafde framed soddan heimsku j Jsrael, og osæmt Jacobs Dotter, þvi þad var ecke hæfelegt.

8. Þa talade Hemor vid þa og sagde, Sichem sonur minn þraer miøg epter ydar Dotter, eg bid ad þier giefed honum hana til Eigennkonu.

9. Giorum Mægder vor a mille, gipted oss ydar Dætur, og taked ydur til handa vorar Dætur,

10. Og bwed hia oss, Landed skal vera oped fyrer ydur, bwed hier, kauped og selied, tveiged ydur stadfestu hier.

11. Og Sichem sagde til hennar Fodurs og hennar Brædra, Lated mig finna Nad hia ydur.

12. Eg vil giefa ydur hvad þier uppa setied, æsked ad eins friilega af mier bæde Morgungiafu og Tilgiafar, Eg vil giefa ydur hvad þier hafa vilied, giefed ad eins Stulku þessa j mitt valld mier til Eigennkvinnu.

13. Þa svorudu Jacobs Syner Sichem, og hans Fodur Hemor, med underhyggiu, Sokum þess ad þeirra Syster Dina var osæmd, og sogdu til þeirra,

14. Eige meigum vier þad giora, ad gipta nockrum Manne vora Syster, þeim sem ecke er umskorenn, þvi þad er oss vanvirda.

15. Enn þo vilium vier vera ydur til vilia, ef þier vilied verda oss lijker, og lata umskera allt Karlkins ydar a millum,

16. Þa vilium vier gipta ydur vorar Dætur, enn taka oss til handa ydar dætur, og bwa hia ydur, og vier vilium vera so aller einn Lydur.

17. Enn vilied þier ecke viliuglega lata umskiera ydur, þa vilium vier taka vora Dotter, og fara j burt.

18. Þesse ræda lijkade Hemor og hans Syne vel.

19. Og Sveirnenn tafde ecke ad giora þad, þvi hann hafde stora ast a dottur Jacobs. Enn hann var agiætastur halldenn allra j sijns Fodurs huse.

20 So komu þeir nu Hemor og hans sonur Sichem til Borgarhlidsins, og toludu vid Borgarmenn sijna og sogdu,

21. Þesser Menn eru fridsamleger hia oss, og vilia bwa j þessu Lande, kaupa og selia, so er nu Landed nogu vijdt fyrer þa, Vier vilium taka þeirra Dætur oss til Eiginnkvenna, og gipta þeim vorar Dætur.

22. Enn

22. Enn j þann maata vilia þeir vera oss til vilia, ad bwa hia oss, og vera eitt Folk med oss, ef vier vilium umskiera allt Karlkins a medal vor, lijka so sem þeir eru umskorner.

23. Þeirra Fie og Fiaarhluter og allt þad þeir hafa verdur vort, ef vær eins kostar vilium giora þeim þetta til vilia, so ad þeir bwe hia oss.

24. Og þeir hlyddu Hemor og Sichem hans Syne, aller þeir sem geingu wt og jnn ad hans stadar Borgarhlidum. Og þeir umskaru allt Karlkins, sem gieck wt og jnn um hans Stad.

II. 25. A þeim þridia Deige er þeim var sem vidkvæmast, þa toku þeir Tveir Syner Jacobs, Simeon og Levi, Brædur Dina, hvor sitt Sverd, og geingu diarflega j Stadenn, og draapu alla Karlmenn.

26. Og þeir draapu eirnenn Hemor og hans Son Sichem med Sverds eggium, og hofdu burt Dinam sijna Syster af Hwse Sichem, og geingu j burt.

27. Þa komu Jacobs Syner yfer þa sem slegner voru, og rændu Borgena, sokum þess ad þeir hofdu osæmt þeirra Systur,

28. Og toku þar Naut þeirra og Saude, Asna, og hvad þar var j Borgenne, og a Økrunum, og allt þeirra Gots,

29. Øll Born og Kvinnur toku þeir ad Herfange, og rændu ollu þvi sem var j Hwsunum.

30. Þa sagde Jacob til Simeon og Levi, þid hafed stofnad mier til Olucku, og giort mig (a) jlla lycktande vid þessa Lands jnnbyggiara, sem eru Cananei og Pheresei, Vier erum faaer, nær sem þeir saman safnast j moote mier, þa slaa þeir mig j hel, so verd eg afmaadur og mitt hws.

(a) Ovinsælann.

31. Þeir svorudu, Skylldu þeir hafa þa breitt vid vora Systur so sem vid adra Portkonu?

# XXXV. Capitule.

(I) Jacob ferdast til Bethel; (II) Rachel andast; (III) Nøfn Jacobs Sona; (IV) Isaac andast.

I. Og GUD sagde til Jacob, Tak þig upp, og far til BethEl, og bw þu þar, og bygg þu þeim GUDe þar eitt Alltare sem vitradest þier, þa þu flyder fyrer þijnum Brodur Esau.

2. Þa sagde Jacob til sijns Huss, og til allra þeirra sem med honum voru, Kasted burt þeim annarlegum Gudum sem þier hafed hia ydur, og hreinsed ydur, og skipted um ydar Klædnad.

3. Tokum oss upp, og forum j BethEl, so eg meige biggia þeim GUDe þar eitt Alltare, sem bænheyrde, mig j minne Mootgangs Tijd, og hefur vered med mier a þeim Veige sem eg hefe fared.

4. So gaafu þeir honum j Hendur alla framande GUDe, sem þeir hofdu under sijnum Hondum, og so þeirra (a) Eyrna Speingur. Og hann groof þau nidur under eina Eik sem stod hia Sichem.

(a) Ennisspeingur.

5. So ferdudust þeir burt, og þar kom hrædsla af Drottne yfer alla þa Stade sem þar laau umhverfis, so þeir soktu þa ecke epter Jacobs Sonum.

6. So komst Jacob til Lus j Canaans Lande, sem kallast BethEl, og allt þad Folk sem var med honum.

7. Og hann biggde þar eitt Alltare, og kallade þann sama Stad ElBethEl(b), þviad GUD birtest honum þar, þa hann flyde fyrer sijnum Brodur.

(b) (El BethEl) þad er Gud j Bethel.

8. Þa andadest Debora Fostra Rebecku, og var Jordud fyrer nedann BethEl, under einne Eik sem var kollud Graat-Eik.

9. Og GUD birtest Jacob j annad sinn, sijdann hann var komenn af Mesopotamia, og blessade hann.

10. Og sagde til hans, þu kallast Jacob. Enn þu skallt ecke hier epter nefnast Jacob,

heilður skalltu heita Israel, og siidann kalladest hann Israel.

11. Og GUD sagde til hans, Eg er Almaattigur GUD, Vertu Avagstarsamur og margfallda þig, Pioder og Pioodahoopur skal koma af þier, og Kongar skulu koma af þijnum Lendum.

12. Og það Land sem eg hefe giefed Abraham og Isaac, vil eg giefa þier, og eg vil giefa það þijnu Sæde epter þig.

13. So foor GUD upp fra hønum ur þeim Stad sem hann talade vid hann.

14. Jacob uppreiste þar einn Steinstølpa j þeim Stad, þar GUD talade vid hann, og joos Dryckiar-Offre (c) þar uppa, og hellte þar yfer Vidsmiøre.

(c) (Dryckiar Offur) Það var Vijn, sem merkia ma af epterfilgiandi Bokum.

15. Og Jacob kallade þann Stad þar GUD talade vid hann, BethEl.

II. 16. Og þeir ferduðust fraa BethEl, og sem þeir voru komner hardt nærre Ephrath þa fædde Rachel.

17. Og hun komst hardla miøg vid j Barnburdenum. Og sem hun þiakadest so þunglega j Barnburdenum, sagde Liosmodurenn til hennar, ottast þu ecke, þvi þennann Son skalltu og hafa.

18. Og sem Ønden gieck upp af henne, og hun hlaut ad deya, þa kallade hun hann Ben Oni, (d) enn hans Fader kallade hann BenJamin. (e)

(d) Ben Oni merker minn Harmkvæla Sonur.
(e) BenJamin Hægre handar Sonur:

19. So andadest Rachel, og var jørdud a Veigenum til Ephrath, sem nu kallast Bethlehem.

20. Enn Jacob sette upp eitt merke yfer hennar Grøf, og það er merke yfer leide Rachel, allt til þessa Dags.

III. 21. Og Israel ferdadest þadann, og sette sijna Tialldbwd a hina sijdu Turnsins Eder.

22. Og það skiede, þa ad Israel bio þar j Landenu, þa gieck Ruben burt, og svaf med Bilha sijns Fodurs Hiaakvinnu, og það spurde Israel. Jacob aatte * Tolf Sonu. * Giørnb: Post. 7, 8.

23. Syner Lea voru þesser, Ruben, sa Frumgietne Sonur Jacobs, Simeon, Levi, Juda, Isaschar og Zabulon,

24. Rachels Syner voru Joseph og BenJamin.

25. Syner Bilha Rachels Amboattar voru Dan og Nephthali.

26. Syner Silpa Lea Amboattar voru þeir Gad og Asser. Þesser eru Syner Jacobs, sem hønum voru Fædder j Mesopotamia.

IV. 27. Og Jacob kom til sijns Fodurs Isaac j Mamre, j þeim Hofudstad sem kallast Hebron, þar sem Abraham og Isaac hofdu vered framande.

28. Og Isaac vard Hundrad og aatta tiju aara gamall,

29. Og hann veiktest, og andadest, og safnadest til sijns Folks, gamall og saddur af þessu Lijfe. Og hans Syner Esau og Jacob jørdudu hann.

## XXXVI. Capitule.

Ættartala Esau.

Þetta er Esau Ættkvijsl, sem nefndest Edom.

2. Esau tok sier kvinnu af Canaans Dætrum, Ada Dotter Elons Hethei, og Ahalibama Dotter Ana, sem var Barns barn Zibeons Hevitei,

3. Og Basmath Ismaels Dotter Nebajoths Syster.

4. Og Ada fædde Esau Eliphas. Enn Basmath fædde Reguel.

5. Ahalibama fædde Jehus, Jaelam og Korah, þesse eru Esau Børn, sem hann aatte j Canaans Lande.

6. Og Esau tok sijnar kvinnur, Sonu og Dætur, og þær allar Saaler sem voru j hans Hwse, sinn Bwsmala, og allt sitt Kvikfie, og alla þa Fiaarhlute sem honum høfdu aflast j Canaans Lande, og foor j eitt Land fra Jacob sijnum Brodur.

7. Þvi þeirra Audæfe voru so mikel, ad þeir moattu ecke bwa til samans, og þad Land, j hvoriu þeir voru framande, bar þa ecke, fyrer sokum Fiolda Hiardar þeirra.

8 Og Esau bio a Fiallbygdum Seir, Og Esau er Edom.

9. Þetta er Ættkvijsl Esau, af hvorium Edomitar eru komner, a Fiallenu Seir,

10. Og þetta er heite Esau Barna, Eliphas son Ada Kvinnu Esau. Reguel son Basmath Kvinnu Esau.

11. Enn þesser voru Eliphas syner, Theman, Omar, Zepho, Gaetham, og Kenas

12. Og Thimna var Hiaakvinna Eliphas Esau sonar, hun fædde honum Amalek. Þesse eru Esau Born af Ada hans Kvinnu.

13. Enn Reguels Born eru þesse, Nahath, Serah, Samma, Misa. Þesse eru Born Basmath Kvinnu Esau.

14. Þesse eru Born af Ahalibama Kvinnu Esau Ana dotter, sem var Barns-barn Zibeons, er hun fædde Esau, Jeus, Jaelam og Korah.

15. Þesser eru Hofdingiar a medal Sona Esau. Born Eliphas Esau Frumgietna sonar voru þesse, Hertuge Theman, Hertuge Omar, Hertuge Zepho, Hertuge Kenas,

16. Hertuge Korah, Hertuge Gaetham, Hertuge Amalek. Þesser eru Hertugar komner af Eliphas, j Lande Edom, og eru syner Ada.

17. Þesser eru syner Reguels sonar Esau, Hertuge Nahath, Hertuge Serah, Hertuge Samma, Hertuge Misa. Þesser eru Hertugar komner af Reguel, J Lande Edom og eru þesser syner Basmath Kvinnu Esau.

18 Þesse eru born Ahalibama Esau Kvinnu, Hertuge Jeus, Hertuge Jaelam, Hertuge Korah, þesser Hefdingiar komu af Ahalibama Anas dotter Kvinnu Esau.

19 Þetta eru Born Esau og þeirra Hofdingia, hann er Edom.

20. Þesse eru born Seirs Horita, sem biuggu j Landenu, Lothan, Sobal, Zibeon, Ana,

21. Dison, Ezer, og Disan, þesser eru Horita Hertugar Seirs born j Lande Edom.

22. Enn þesse eru Lothans born, Hori og Heman, og Lothans Syster hiet Thimna.

23. Þesse voru Sobals Born, Alvan, Manahath, Ebal, Sepho, og Onan.

24 Þesse voru Born Zibeon, Aia og Ana, Og þesse Ana var sa sem fann Muulasna j Eydemorku, þa hann geymde sijns Fodurs Zibeons Asna.

25. Þesse voru Anas Born, Dison, og Ahalibama, þad er Anas Dotter.

26. Þesse voru Born Dison, Hemdan, Esban, Jetran og Charan.

27. Þesse voru Ezers born, Bilhan, Savan, og Akan.

28. Disans born voru Uz og Aran.

29. Þesser voru Hertugar Horita, Hertuge Lothan, Hertuge Sobal, Hertuge Zibeon, Hertuge Ana

30. Hertuge Dison, Hertuge Ezer, Hertuge Disan. Þesser voru Hertugar þeirra Horita, sem rijktu j Landenu Seir.

31. Þesser eru þeir Kongar, sem rijktu j Lande Edom, fyrr enn Jsraels syner hofdu Konga.

32. Bela Beors son var Kongur j Edom, og hans Borg hiet Dinhaba.

33. Enn sem Bela deyde, vard Jobab Serah son af Bazra Kongur j hans stad.

34 Þa Jobab andadest, vard Husam af Lande Themanorum Kongur j hans stad.

35. Enn þa Husam deyde, vard Hadad Bedads son Kongur j hans stad, hvor ed slo þa Madianita a Moabiters mørkum. Og hans stadur hiet Avith.

36. Enn sem Hadad deyde, Rijkte Samla af Masrek.

37. Þa Samla deyde, vard Saul af Rehoboth hiaa Fliotenu, Kongur j hans stad.

38. Epter Andlaat Sauls, tok Kongdom Baal Hanan Achbors son.

39. Epter Baal Hanan Achbors son tok Hadar Kongdom, og hans Stadur hiet Pagu, og hans Kvinna hiet Mehethabeel dotter Matred, Dottur Mesahab. 40. Þesse

40. Þesse voru þeirra Hertuga Nofn, sem komu af Esau, epter þeirra Ætterne, stodum og Nofnum, Hertuge Thimna, Hertuge Alva, Hertuge Jetheth,

41. Hertuge Ahalibama, Hertuge Ela, Hertuge Pinon,

42. Hertuge Knas, Hertuge Theman, Hertuge Mibzar,

43. Hertuge Magdiel, Hertuge Iram. Þetta eru þeir Hofdingiar j Edom, epter þvi sem þeir biuggu j sijnu Erfdalande. Enn Esau er Fader þeirra Edomita.

## XXXVII. Capitule.

Joseph (I) dreymer; og er (II) selldur af Brædrum sijnum.

I. Jacob bio j þvi Lande, sem hans Fader hafde vered Framande, sem var j Canaans Lande.

2. Og þesse er Jacobs Ættkvijsl. Joseph var Seitian ꝍra gamall, þa hann giætte Hiardar med sijnum Brædrum. Og Sveirnenn var hiꝍ sonum heirra Bilha og Silpa sijns Fodurs Kvenna. Og hann sagde sijnum Fødur fra þeirra vondu Ricкte.

3. Og Jsrael hafde Joseph kiærann framm yfer oll sijn Børn, þvi hann hafde gieted hann j sinne Elle, og hann giorde honum eirn misslitan Kyrtil.

4. Enn er hans Brædur sꝍu þad, ad þeirra Fader elskade hann meir enn alla hans Brædur, * þa feingu þeir hatur til hans, og gꝍtu ei talad eitt vinsamlegt Ord vid hann.

* Giorn: B: Post: 7, 9.

5. Þar til dreymde Joseph einu sinne einn Draum, og sagde hann sijnum Brædrum, þa hotudu þeir hann enn meir.

6. Þvi hann sagde til þeirra, Heyred hvad mig hefur dreymt.

7. Mier þotte, ad vier bundum Korns Bindine ꝍ Akre, og mitt Korns Bindine reiste sig upp, og stood, enn ydar Korns Bindine beygdu sig nidur fyrer mijnu Korns Bindine, allt um kring.

8. Þa svorudu hans Brædur honum, Muntu þa eiga ad verda vor Kongur, og drottna yfer oss? Og þeir feingu enn meira Hatur til hans, bæde sokum hans Draums, og hans Orda.

9. Epter þad dreymde hann eirn annann Draum, og sagde sijnum Brædrum, seigiande, Sioꝍd, Mig dreymde enn eirn Draum. Mier þotte ad Soolenn og Tungled og Ellefu Stiornur lutu mier.

10. Og sem þetta var sagt hans Fodur, og hans Brædrum, straffade Fader hans hann og sagde til hans, Hvad er þad fyrer eirn Draum sem þig dreymde? Skyllde eg og þijn Moder og þijner Brædur koma og tilbidia þig?

11. Og hans Brædur hotudu hann, enn hans Fader geymde þesse Ord hiꝍ sialfum sier.

II. 12. Og sem hans Brædur geingu nu j burt, ad hallda þeirra Fødurs Saudum til Haga j Sichem, sagde Jsrael til Josephs,

13. Geyma ecke þijner Brædur Hiord j Sichem? Kom, eg vil senda þig til þeirra.

14. Hann svarade, Hier em eg. Og hann sagde, Far þangad, og siꝍ hvort allt geingur vel þijnum Brædrum og Hiordunne, og seig mier svꝍr aptur, hvad þar er tijdenda. So sende hann Joseph a stad vor Dalnum Hebron, ad hann fære til Sichem.

15. Þa fann Madur nockur hann, er hann villtest a Morkenne, hann spurde hann ad, og sagde, Epter hvoriu leitar þu?

16. Hann svarade, Eg leita epter mijnum Brædrum, eg bid þig ad þu seiger mier hvar þeir hallda Hiordenne.

17. Madurenn svarade, Þeir eru farner hiedan, þvi eg heyrde þa seigia, Vier vilium fara til Dothan. So gieck Joseph epter sijnum Brædrum, og fann þa j Dothan.

18. Sem þeir sꝍu hann nu a leingdar, ꝍdur enn hann kom nærre þeim, giordu þeir rꝍd sijn ad vega hann,

19. Og sogdu sijn a mille, Sioꝍd, Draum-madurenn kiemur,

20. Þvi komed nu og lꝍtum oss vega hann, og kostum honum j Gryfiu, og seigium

ad illt Dyr hafe hann uppeted, þa mun siaast hvad hans Draumar hafa uppa sig.

21. Enn sem Ruben heyrde þetta, villde hann frelsa hann af þeirra Hondum, og sagde, Eige skulum vier drepa hann. Og Ruben sagde enn framar til þeirra.

22. Uthelled ecke Bloode, helldur kasted honum j þessa Grof sem hier er j Eydemørkenne, og legged ecke Hendur a hann. Þvi hann villde frelsa hann af þeirra Hondum, so hann giæte aptur feinged hann siinum Fodur.

23. Og sem Joseph kom nu til sinna Brædra, flettu þeir hann siinum Kyrtle, sem var sa misslite Kyrtell er hann hafde.

24. Og þeir toku hann, og køstudu honum j eina Gryfiu. Enn su sama gryfia var toom og Vatnslaus.

25. Þeir settust nidur ad neyta Matar. Og j þvi bile, lyptu þeir upp siinum Augum, og sáu ad flockur Ismaelita kom af Gilead, med siina Ulfallda, sem baaru Jurter, Balsamum, og Myrrham, og ferdudust nidur j Egyptaland.

26. Þa sagde Juda til sinna Brædra, Hvad stodar oss þo vier myrdum vorn Brodur og leynum hans Blode?

27. Komed, vier vilium selia hann þeim Ismaelitis, so ad vorar Hendur forgriipe sig ecke a honum, þvi hann er vor Broder, vort Holld og Blod, og þeir hlyddu honum.

28. Og sem þeir Madianitersku Kaupmenn reistu þar framm hioa, drogu þeir hann upp vr Gryfiunne, og selldu hann þeim Ismaelitis fyrer tuttugu Silfurpeninga, Þeir fluttu hann j Egyptaland.

29. Enn þa Ruben kom nu til Gryfiunnar aptur, og fann ecke Joseph þar, þa reif hann siin Klæde,

30. Kom til sinna Brædra aptur og sagde, Sveirnenn er ecke þar, Hvort skal eg fara?

31. Þa toku þeir Josephs Kyrtil, skærdu einn Hafur, og velktu Kyrtelenn j hans Bloode.

32. Og þeir sendu þann sama misslita Kyrtel af stad, og lietu færa hann þeirra Fodur, og seigia so, Þetta hofum vier funded, skoda þu, hvort þad er þiins Sonar Kyrtill, eda ecke.*

[* Þa hefur Jacob haft atta vetur og hundrad.]

33. Hann þeckte hann, og sagde, Þad er mijns Sonar Kyrtell, Olmt Dyr hefur upp eted hann; Eitt glepsande Dyr hefur sundur slited Joseph.

34. Og Jacob reif siin Klæde, og lagde einn Seck um siinar Lendar, og sorgade sinn Son langa Tijma.

35. Og aller hans Syner og Dætur, løgdu sig til ad hugga hann, enn hann villde ecke laata sig hugga, og sagde, eg mun fara med Harme j Grøfena nidur til mijns Sonar. Og hans (a) Fader griet hann.

(a) (Fader) Þad var Isaac Jacobs Fader, og Afe Josephs, sem lifde epter þennann adburd um tolf Aar.

36. Enn þeir Madianitar selldu Joseph j Egyptalande þeim Manne sem hiet Potiphar, hver ed var Pharaonis Herbergis Sveirn (b) og Hofmeistare.

(b) Hershøfdinge.

## XXXVIII. Capitule.

Juda (I) blessast med Børnum, og (II) leggst med Thamar.

1. Þad bar til a þeim sama Tijma, ad Juda for ofann fra siinum Brædrum, og gaf sig til eins Manns af Odollam, hann hiet Hira.

2. Og þar leit Juda eins Cananerskß Manns Dotter, hann hiet Suha, og fieck hennar.

3. Og sem hann lagdest med henne, vard hun þungud, og fædde einn Son, þann nefnde hann Ger.

4. Hun vard og olett j annad sinn, og aatte einn Son, þann nefnde hun Onan.

5. Hun fædde aptur einn Son, þann kallade hun Sela. Hann var j Chesib þa hun fædde hann.

6. Og Juda gipte sinn frumgietenn Son Ger einne Kvinnu, sem hiet Thamar.

7. Enn hann var Skalkur j Auglite Drottins, þar fyrer slo DRottinn hann jhel.

8. Þa sagde Juda til Onan, gack jnn til þinnar Brodur Kvinnu, og tak hana til Egta, so þu meiger uppveckia þijnum Brodur Sæde.

9. Enn er Onan visse þad, ad Sæded var ecke hans eiged, þo ad hann legdest med siins Broders Kvinnu, liet hann þad a Jord falla, og spillast, so hann skyllde ei giefa siijnum Brodur Sæde.

10. Þad mißlijkade DROTtne er hann giorde, og slo hann einnenn jhel.

11. Þa sagde Juda til sinnar Sonarkonu Thamar, vert þu ein Eckia j þijns Fodurs Huse, þar til minn Son Sela er vaxenn. Þvi hann hugsade, skie ma ad hann deye so sem hans Brædur. Thamar for burt, og var j sijns Fodurs Huse.

II. 12. Og epter marga Daga lidna, andadist Dotter Suha, Husfru Juda. Og þar epter sem Juda hafde ute sijna Sorg, þa for hann upp til Thimnath ad klippa sijna Saude, med sijnum (a) Hyrder, Hira af Odollam.

(a) Vin.

13. Þetta spurde Thamar, Sioa, Maagur þinn geingur upp til Thimnath, ad klippa sitt Fie.

14. Og hun lagde sinn Eckiu-bunad af sier, sem hun bar, og vafde um sig einum Mottle og hulde sig, og sette sig fyrer Dyrnar a þeim Veige sem liggur til Thimnath, þvi hun sa ad Sela var fullvaxenn, enn hun var þo ei gipt honum.

15. Þa nu Judas sa hana, ætlade hann ad vera munde ein Port Kona, þvi hun hafde huled sitt Andlit.

16. Hann gieck af Veigenum til hennar, og sagde, leyf mier ad liggia hia þier, þvi ad hann visse ecke ad þad var hans Sonar Kvinna. Hun svarade, hvad villt þu giefa mier, ad þu meiger liggia hia mier?

17. Hann sagde, eg vil senda þier einn Geithafur af Hiordenne. Hun svarade, fa mier þa nockud j Panta, þar til þu sender mier hann.

18. Hann sagde, Hvad villt þu þa ad eg fae þier til Panta? Hun svarade, þinn Hring, þinn Nafaduk, og þinn Staf sem þu hefur j Hendenne.

19. So fieck hann henne þetta, og laa hia henne, og hun fieck Gietnad af þeirra vidskiptum, stood upp, og gieck burt, og lagde Kapuna af sier, og færde sig j sinn Eckiubuning aptur.

20. Og Juda sende Geithafurenn med sijnum (b) Hyrder af Odollam, og ad hann skyllde heimta Pantana aptur af Kvinnunne, enn hann fann hana hverge.

(b) Vin.

21. Þa spurde hann Folked ad j þeim stad, og sagde; hvar mun su Portkona sem sat ut vid Veigenn. Þeir svorudu, eingenn Portkona hefur þar vered.

22. Og hann kom til Juda aptur, og sagde, ecke fann eg hana, og Folked j þeim Stad sagde, þar hefde eingenn Portkona vered.

23. Þa sagde Juda, hafe hun þad hun helldur, ad vier skulum ecke verda minkader, þvi eg sende Geithafurenn sem eg lofade, og þu kunner ecke ad finna hana.

24. Þremur Maanudum þar epter lidnum, var Juda sagt, Thamar þijns Sonar Kona er nu ordenn Portkona, og sia, hier med er hun ordenn olett j frillulijfe. Þa svarade Juda, færed hana hingad, hun skal brennast.

25. Og þa hun var frammleidd, sende hun bod til sijns Mags, og sagdi, af þeim Manne hef eg gietnad feinged, sem þetta heyrer til, og sagde, veitst þu ecke hvorium þesse Hringur, og þesse Klutur, og þesse Stafur tilheyrer?

26. Juda þeckte þad og sagde, hun er riettferdugre enn eg, þvi eg gaf henne ecke minn Son Sela, og hann kiennde hennar ecke þadann j fraa.

27. Og sem hun skyllde nu verda liettare, þa gieck hun med Tvibura,

28. Og j sialfre Fædingunne þa kom þar ein Barns Hønd j Lios. Yfersetukonann tok þa einn raudann þræad, og batt um Høndena og sagde, þesse skal first fædast.

29. Enn sem hann tok siina Hønd ad sier, þa kom hans Broder til, og hun sagde, þvi hefur þu fyrer þijna Skulld giort soddann sundurslit? Og han. var nefndur Perez (c).

(c) Perez þydest sundurslitare.

30. Þar epter var hans Broder fæddur, sem hafde þann rauda þræad um siina Hønd, og hann var kalladur Serah (d).

(d) (Serah) upprune.

## XXXIX. Capitule.

(I) Josephs Þionusta; (II) Hreinlijfe; og (III) Fangelse.

I. Joseph var fluttur nidur j Egyptaland. Og Potiphar einn Egyptskur Madur, Herbergis Þienare og (a) Hofmeistare Pharaonis Kongs keypte hann ad þeim Ismaelitis, sem fluttu hann ofann þangad.

(a) Herhøfdinge.

2. Og GUd var med Joseph, so hann vard luckusamur, og var j Huse siins Herra þess Egyptska.

3. Og hans Herra sa, ad DROTTinn var med honum, þviad allt hvad hann giørde, þad liet DRottenn vel luckast fyrer hann,

4. So ad hann fann Nȯad fyrer siinum Herra, og var hans Þienare. Og hann sette hann yfer allt sitt Hus, og allt hvad hann hafde, þad gaf hann honum under hans Hendur.

5. Og upp fra þeim Tijma sem hann hafde sett hann yfer sitt Hus, og yfer alla siina Fiaarhlute, þa blessade DROTTINN þess hins Egyptska Hus, vegna Josephs, og þar var jdugleg GUds Blessan yfer øllu þvi hann hafde, bæde heima j Husenu og so a Økrunum ute.

6. Og þvi gaf hann alla syna Eigu Joseph j Hendur, og hugsade ecke um neitt a medann hann hafde hann, utann þat og drack. Enn Joseph var væun ad yferlite, og friidur j Asionu.

II. 7. Þad skiede epter þessa tilburde, ad Kona hans Herra rennde Augum til Josephs, og sagde, sof þu hiaa mier.

8. Enn hann villde ecke, og sagde til hennar, sia, minn Herra hlutast til einskis fyrer mier sem er j hans Huse, og allt hvad hann a, þad hefur hann lagt under mijnar Hendur,

9. Og hann hefur eckert so mikels verdt j siinu Huse, ad hann geyme þad fyrer mier, ad fratekenne þier (b) þad þvi vidvijkur, ad þu ert hans Eigennkvinna, hvornenn ma eg nu þa giøra so miked Ohæfu-Verk, og syndgast a mote GUde?

(b) (Þad þvi vidvijkur,) j ødru atti Joseph ad forga, svo vel fyrer Husmoodurenne, sem øllu Husenu, utann j þvi, ad hann mætte ecke liggia med henne.

10. Hun talade daglega soddann Ordum vid Joseph, enn hann villde j ongvann maata samþyckiast henne, j þvi hann læge med henne, eda være hiaa henne.

11. Þad skiede so a nockrum Deige, ad Joseph gieck jnn j Husid, til Syslu sinnar, og þar var eingenn Mann af Heimafolkenu.

12. Hun tok þa j hans Fat, og sagde so til hans, sof þu med mier. Enn hann liet epter sitt Fat i hennar Høndum og flude, og hliop ut af Husenu.

13. Og sem hun saa nu, ad hann liet sitt Fat epter j hennar Høndum, og flyde ut,

14. Þa kallade hun a Folked j Hused, og sagde til þeirra, siaaed, hann hefur haft hingad þann Ebreska Mann, til ad veita oss vanvirdu, hann kom hier jnn til mijn, og villde hafa leiged med mier, enn eg kallade med hiarre Roddu.

15. Enn sem hann heyrde ad eg hroopade so og kallade, þa sleppte hann siinu Fate vid mig, enn flyde sialfur, og hlioop ut.

16. Og hun lagde hans Fat hiaa sier, þar til ad hans Herra kom heim. Og talade til hans øllum somu Ordum, og mællte.

17. Hier kom sa Ebreske Sveirn jnn til

 mijn

mijn, sa þu hefur hast hingad, og villde vanvirda mig.

18. Enn þa eg tok til ad hroopa og kalla, þa liet hann epter sitt Fat hiaa mier, og flyde j burtu.

III. 19. Og sem hans Herra heyrde Ord sinnar Kvinnu, sem hun talade til hans, og sagde, so hefur þinn Þienare giort vid mig. Þa vard hann miog reidur.

20. Þa tok hans Herra hann, og kastade honum j Myrkvastofu, þar sem Kongsins Faangar voru vardveitter. Og hann laa þar j Myrkvastofunne.

21. Enn DROTTinn var med honum og hneigde sijna Miskun til hans, og liet hann finna Naad hiaa Forstiora Myrkvastofunnar,

22. So hann bifalade under hans Hond alla Bandingiana sem voru j Myrkvastofunne, so ad allt hvad þar skyllde gioraft blaut af honum ad gioraft,

23. So ad Forstiorenn Myrkvastofunnar tok sier ecke neitt fyrer hendur, þviad Drottinn var med Joseph, og DROTTinn gaf luckn til þess sem hann giorde.

## XL. Capitule.

Joseph leggur einn Draum ut (I) fyrer Skeinkiaranum, og (II) fyrer Bakaranum.

I. Sa atburdur var þar epter, ad Skeinkiare Kongsins j Egyptalande, og so hans Bakare brutu j moote sijnum Herra Egyptalands Konge.

2. Og Pharao reiddist baadum sijnum Þionustumonnum, þeim ypparsta Skeinkiara, og ypparsta Bakara.

3. Og liet setia þa j Hofmeistarans Hus j Myrkvastofu, þar sem Joseph var fyrer j Faangelse.

4 Og Hofmeistarenn sette Joseph yfer þa, ad hann skyllde þiona þeim, og þeir saatu nockra Daga j Myrkvastofu.

5. Og Baada Egyptalands Kongs Þionustumenn Skeinkiarann, og Bakarann, dreymde a eirnre Nottu, under eins, hvorn þeirra sinn Draum, og hvors þeirra Draumur hafde sijna merking.

6. Pa Joseph kom nu jnn til þeirra um Morguninn, og sa ad þeir voru oglader, spurde hann þa ad, og sagde.

7. Þvi erud þier so okaater j Dag?

8. Þeir svorudu, Ockur hefur dreymt, og hier er eingenn sa sem kann þad ad raada fyrer ockur. Joseph sagde, Utleggingenn heyrer Gude til, Enn seiged mier þo (hvad yckur dreymde)

9 Þa frammsagde sa ypparste Skeinkiare fyrer Joseph sinn Draum, og sagde til hans, mig dreymde, ad einn Vijnvidur være fyrer mier, med þremur Kvijslum.

10 Hann vard grænn, ox og blomgadest, so ad Vijnberenn þar a urdu fullvaxenn,

11. Og eg hafde Pharaonis Bordkier j minne Hende, og eg tok Berenn og spreingde þau j Kiered, og so rietta eg Kierid j Pharaonis Hond.

12. Þa sagde Joseph til hans, Þetta er vtt þydingenn þar uppa, Þriar Vijnvidar kvijsler eru þrijr Dagar,

13. Og ad þremur Dogum lidnum, mun Pharao upp-hefia þitt Hofud, og setia þig aptur til þijns Embættis, so þu munt rietta Bordkierid j hans Hond, so sem þu plagader fyrr ad giora, þa þu varst hans Skeinkiare.

14 Enn minnstu mijn þa þier vel geingur, og veit mier þa Miskun, ad þu aaminner Pharaonem, ad hann take mig vt af þessu Huse,

15. Þviad mier var med leynd burt stolid af lande Ebreskra Manna, Þar med hef eg og hier eckert þar til unned, ad þeir hafa sett mig jnn.

II. 16. Nu sem sa ypparste Bakare sa þetta, ad Utþydinginn var so god, þa sagde hann til Joseph, mig dreymde og so. Eg þottunst bera þriar hvijtar Karfer a mijnu Hofde,

17. Og j þeirre efstu Korf voru allra handa steiktar Kraaser til Handa Pharaone.

Enn

Enn Fuglarner ꝏtu vr Korfenne, a mijnu Hofde.

18. Pa svarade Joseph, og sagde, Petta er vtþydingenn, Priar Karfer eru þrijr Dagar.

19. Og epter þria Daga mun Pharao upp hefia þitt Høfud, og festa þig a Gꝏlga, og Fuglar munu eta þitt Holld af þier.

20. Og þad skiede a þeim þridia Deige þadann, þa hiellt Pharao sinn Burdar-Dag, og giørde øllum sijnum Pienurum eitt Giestabod, Pa upphof hann þess ypparsta Skeinkiara Høfud, og so høfud þess ypparsta Bakarans, a medal sinna Pienara.

21. Og hann sette þann ypparsta Skeinkiara aptur til sijns Embættis, ad hann skyllde rietta Kiered j Pharaonis Hond,

22. Enn þann ypparsta Bakara liet hann heingia, so sem Joseph hafde vt-þydt þeim.

23. Enn sa Ædste Skeinkiarenn minntest ecke a Joseph, helldur gleymde honum.

## XLI. Capitule.

(I) Draumar Pharaos; verda (II) utlagder af Joseph, hver ed (III) verdur og so upphafinn.

I. Og tveimur ꝏrum þar epter þa dreymde Pharao Draum, hvørsu hann stod hiꝏ einu Fliote.

2. Og siꝏ, upp vr Fliotenu komu Siø Kyr feitar og fagrar, og þær geingu j goodu Haglende.

3. Epter þær sꝏ hann adrar Siø Kyr stijga upp ur Fliotenu, þær voru liotar og magrar. Pær geingu ad þeim ødrum Kunum, sem voru a Fliotsbackanum.

4. Og þær enu liotu og mogru Kyrnar, uppꝏtu þær siø Feitu og fogru Kyr, Og þa vaknade Pharao.

5. Og hann sofnade j annann tijma, og hann dreymde j annad sinn, og sꝏ, ad þar spruttu upp Siø Axin a einum Hꝏlme full og þrvotenn

6. Par epter sꝏ hann ønnur siø mio og brunnenn Axin upp koma.

7. Og þesse Siø mogru Axen upp svelgdu þau siø feitu og fullu Axen.

8. Pa vaknade Pharao, og fornam ad þad var einn Draumur. Og um Morgunenn vard hans Ande hugsiukur. Og hann sende vt, og heimte til sijn alla Spꝏsagnar menn Egyptalands, og alla Spekinga, og sagde þeim sijna Drauma, Enn þar var einginn sem þa kunne ad rꝏda fyrer Pharaone.

II. 9. Pa talade sꝏ ypparste Skeinkiare til Pharaonem, og sagde, Minnest eg j Dag ꝏ Misgiørning minn,

10. Pa Pharao vard reidur uppa sijna Pienara, og liet setia mig og þann ypparsta Bakara j Mirkvastofu, j Hofmeistarans Hvose,

11. Pa dreymde ockur bꝏda ꝏ einne Nottu sinn Draum hvørn ockar, og hvørium fyrer sig gieck epter þvi sem hvørs Draumur riedst.

12. Par var hiꝏ ockur eitt Ungmenne Ebreskt, Hofmeistarans Pienare, honum søgdum vid ockar Drauma,

13. Og hann riede ockur ockar Drauma, hvørium epter sijnum Draum, og þad gieck ockur so epter sem hann vtlagde þa, Pviad eg er settur til mijns Embættis aptur, enn sꝏ annar var heingdur.

14. Pa sende Pharao, og liet kalla a Joseph, og þeir lietu hann strax vr Mirkvastofunne, og hann liet skiera sitt Hꝏr, og foor j ønnur Klæde, og gieck jnn fyrer Pharao.

15. Pa sagde Pharao til hans, Mig hefur dreymt einn Draum, og hier er eingenn sa hann kann ad rꝏda, Enn eg hefe heyrt sagt um þig, ad þegar þu heyrer nockurn Draum, þa kunner þu ad rꝏda hann.

16. Joseph svarade Pharaone og sagde, ecke er þvilijkt j (a) mijnu vallde, Gud mun þo spꝏ Pharaone gods.

a) (Mijnu Vallde) þad er ad skilia, eg er ecke sꝏ sem Drauma hefur vtþydt, edur kann ad utþyda, Pad er sꝏ sem slykt hefur fyrer mig giørt, hann

same kann og þad ad giora fyrer þig. Sv giefur Joseph Gude Dyrdena, enn affeiger þo ecke sijna þienustu.

17. Þa sagde Pharao Joseph fraa, Mig dreymde, Eg stæde aa Fliots backanum,

18. Og eg saa sio fagrar feytar Kyr koma upp vor Anne, og þær geingu j Haglendenu og bitu.

19. Og epter þær saa eg sio adrar þurrar, miog liotar og magrar Kyr uppkoma, eg hefe alldrei sied adrar jafnliotar j øllu Egyptalande.

20. Og þær sio mogru og liotu Kyr uppaatu þær fyrre sio feitu Kyrnar,

21. Og þa þær hofdu upp eted þær, sa þar ecke mun a þeim, ad þær hefde eted þær, og voru liotar lijka sem fyrr. Og þa vaknade eg.

22. Þar epter saa eg aptur j mijnum Draume, Ad sio Axr runnu upp a einum Hoalme, full og þrootenn.

23. Þar epter runnu upp sio þurr Axr, sem bæde voru þunn og sviðinn.

24. Og þesse sio þunnu Axenn upp aatu þau sio enu þyckvu Axenn. Og eg hefe sagt Spaasagnar-monnum þetta, Enn þeir kunnu ecke ad þyda mier þetta vot.

25. Joseph svarade Pharaone, bvader Pharaonis Draumar merkia eitt, þvi Gud kunngiorer Pharaone, hvad hann ætlar ad giora.

26. Sio Kyr fagrar eru sio aar, Og þau Sio goodu Axenn eru og sio aar, Þesser bvader Draumar hafa eina merking.

27. Þær sio Kyr magrar og liootar, sem upp komu epter hinar, þad eru sio aar, Og þau sio mioou og visinn Ax, eru sio Hallæris aar.

28. Þetta er nu þad sem eg hefe sagt Pharaone, Ad Gud undervijsar Pharaone hvad hann vill giora.

29. Sioa, Sio rijk aar munu koma, yfer allt Egyptaland.

30. Enn ad þeim lidnum, þa munu koma onnur sio Hallæris aar, so ad Menn skulu gleyma allre þeirre Nægd j Egyptalande, Og þad Hallære mun upp eta Landed,

31. So ad Menn skulu ei minnast þeirrar yferfliootanlegrar Argiædsku j Landenu, sokum þeirrar Hallæris tijdar sem koma mun hier epter, þvi hun verdur miog þung.

32. Enn þad Pharaonem dreymde hid sama j odru sinne, þad hefur þa Merking, ad Gud vill sannarlega, og snarlega giora þetta.

33. Þvi sioae sig Pharao um, og soae til einn vijsann og forsioalann Mann, hvorn hann kunne ad setia yfer allt Egyptaland,

34. So ad hann skicke Høfudsmenn yfer Landed, og take Fimmtung allann j Egyptalande, a þessum sio Argiædsku aarum.

35. Og samannsafne allra handa vistum a þessum goodum tilkomande aarum,

36. Ad þeir safne Korne j Pharaonis Kornhlodur, og geyme þad til Forda j Stodunum, so Menn meige finna forsorgadar Fædslur fyrer Landed a þeim sio Hallæris aarum, sem koma munu yfer Egyptaland, so ad Landed fordiarfest ecke af Hungre.

III. 37. Þesse Ræda lijkade Pharaone, og øllum hans Þienurum,

38 Og Pharao sagde til sinna Þienara, Hvar munum vier finna einn þvilijkann Mann, j hvorium Guds Ande er?

39. Og hann sagde til Josephs, Af þvi ad Gud hefur kunngiort þier allt þetta, þa er þar eingenn so hyggenn og forsioall sem þu ert.

40. Þu skallt vera yfer-settur yfer mitt Hws, og allur minn Lydur skal hlyda þijnum Ordum, Kongs Hoasæte einu skal eg þier ædre vera.

41. Og enn framar sagde Pharao til Josephs, Sioa, eg hefe sett þig yfer allt Egyptaland.

42. Og hann took (b) Hring af hende sier, og gaf hann Joseph aa hans hond, og klædde hann med hvijtum Silkeklædum, og heingde eina Gullkiedju um hans Hoals.

(b) Fingurgull.

43. Og hann liet aka honum j sijnum ødrum vagne, og liet uthroopa fyrer honum, Hann er Landsins Fader. Og sette hann yfer allt Egyptaland,

44. Og Pharao sagde til Josephs, Eg er Pharao, oan þijns vilia skal eingenn hræra hønd sijna eda fot j øllu Egyptalande.

45. Og Pharao kallade hann þad Leynda Raadid. Og hann gaf hønum Asnath til eiginnarkvinnu, sem var dotter Potiphars Kiennemanns j On. So reiste Joseph vt, ad skoda Egyptaland. *

[Joseph var 30 œra þa hann vard Hofdinge Egyptalands, og hafde þa vered 13 œr j sinne Utlegd og Fangelse.]

46. Og hann var þriatijger œra gamall, þa hann stood fyrer Pharaone, Kongenum af Egyptalande, Og hann gieck vt fra Pharao, og reiste j giegnum allt Egyptaland.

47. Og landed leidde af sier yferfliotanlega gnægd Avaxtar um þau sio Vellte-œr.

48. Og hann safnade saman oa þeim sio œrum alsh œitudum Fædslum, sem voru oa Egyptalande, og lagde þær jnn j Stadena, allt þad sem vox oa Økrunum j Kringum hvørn Stad, til Fædslu, þad allt samann liet hann jnn læta.

49. Og j söddann mœta safnade Joseph omælanlega miklu korne til samans, so sem Sand med Sioasarstrøndu, so hann liet af ad telia þad, þvi þad kunne ecke ad reiknast.

50. Og Joseph œtte tvo Sonu, œdur enn Hallæred kom, hvoria ed Asnath, dotter Potiphars Kiennemannsins j On, fædde hønum.

51. Og hann nefnde þann fyrra Manasse, Þvi Gud (sagde hann) hefur lœted mig gleyma øllum mijnum Motgange, og øllu mijns Fødurs Hwse.

52. Þann annann nefnde hann Ephraim (c), þvi Gud (sagde hann) hefur lœted mig vagsa j þessu Lande, þar eg var foatækur.

(c) Manasse þydest gleymt; Ephraim Uppvaxenn.

53. Og sem þau sio Friosgunar œr voru umlidenn j Egyptalande,

54. Þa toku þau sio Hallæris œrinn ad koma, þau sem Joseph hafde talad um. Og þar vard Hallære j øllum Løndum, Enn j øllu Egyptalande var Braud.

55. Enn sem ad þar kom, ad alls Egyptalands jnnbiggiarar toku ad lijda Hungur, þa hropade Folked til Pharaonis um Braud. Enn Pharao sagde til allra Egyptskra, Fared til Josephs, og hvad hann seiger ydur, þad giøred.

56. Sem nu Hallæred var j øllu Landenu, þa upplauk Joseph allstadar Kornhløduni, og sellde þeim Egyptsku, Þviad þess leingur sem Hallæred var, þess þyngra var þad j Landenu.

57. Og øll Lønd komu j Egyptaland, ad kaupa af Joseph, þvi miøg megnt Hungur var j øllum Løndum.

# XLII. Capitule.

Syner Jacobs ferdast til Egyptalands, ad Frateknum Ben-Jamin.

Nu sem Jacob soa ad Korn var til Kaups j Egyptalande, þa sagde hann til Sona sinna, þvi horfed þier so leinge a þetta? Sioaed,

2. Eg hefe heyrt sagt, ad Korn sie til kaups j Egyptalande, þar fyrer fared ofann þangad, og kauped oss Korn, so vier meigum lifa og deya ecke.

3. Þa foru Tiju Josephs Brædur ofan til Egyptalands, ad kaupa Korn.

4. Enn Jacob liet ecke BenJamin Josephs Brodur fara med sijnum Brædrum, þviad hann sagde, Moa skie ad hann meige saka nockud.

5. Og Israels syner komu ad kaupa Korn, med þeim ødrum sem ad fooru med þeim, þviad þar var Hallære j Canaans Lande.

6. Enn Joseph var Stiornare j Landenu, og hann sellde Korned øllum Mønnum Landsins. Og sem hans Brædur komu nu til hans, fiellu þeir nidur til Jardar fyrer hønum, a sijnar Asionur,

7. Og hann soa uppa þa og þeckte þa, enn hann liet sem hann þeckte þa ecke, og mællte hard-

hardlega vid þa, og sagde til þeirra, hvadann erud þier adkomner? Þeir svorudu; Af Canaans Lande, ad kaupa oss Fædslur.

8. Enn þo hann þeckte þa, þa þecktu þeir hann ecke ad helldur.

9. Joseph minntest þa a Draumana sem hann hafde ꜳdur til forna dreymt um þa, og sagde til þeirra, þier munud vera Niosnarmenn, komner til þess ad sioa hvar Landed er (a) oped.

(a) Veikt.

10. Þeir svorudu honum, eige er so, Minn Herra, þijner Þienarar eru hingad komner ad kaupa Fædslur.

11. Vier erum aller eins Manns Syner, vier erum ærleger, og þijner Þienarar hafa alldrei vered Niosnar Menn.

12. Hann sagde þa til þeirra, Nei, helldur munud þier komner ad skygnast um hvar Landed er oped.

13. Þeir svorudu honum, vier þijner Þionar erum Tolf Brædur, eins Manns Syner, j Canaans Lande, og sꜳ hinn yngste er nu heima hiꜳ vorum Fodur, enn sa einn er ecke til.

14. Joseph sagde til þeirra, þetta er þad sem eg hefe sagt, þier erud Niosnar-Menn.

15. Þar uppa vil eg reyna ydur, so sannarlega sem Pharao lifer, þier skulud ecke a burt fara hiedann, fyrr enn ydar yngste Broder kiemur hingad.

16. Sended einn af ydur ad sækia ydar Brodur. Enn þier skulud vera j Fiotrum, so vil eg reyna ydar Sagner, hvort þier seiged satt edur ei. Annars erud þier so sannarlega sem Kong Pharao lifer, Niosnarmenn.

17. So liet hann hallda vord yfer þeim til samans j þria Daga.

18. Enn a þeim þridia Deige sagde hann til þeirra, ef vilied þier hallda ydar Lijfe, þa giored so sem eg seige, þviad eg ottunst GUd.

19. Ef þier erud fromer, þa ligge einn af ydar Brædrum bundenn j ydar Fꜳngelse, enn þier fared heim og flytied heim þad sem þier hafed keypt ydar Hungurs vegna.

20. Og hafed hingad ydar yngsta Broder til mijn, þa vil eg trua ydrum Ordum, so þier skulud ecke deya, og þeir giordu so.

21. Og þeir toludust vid sijn a mille, þetta hofum vier forþienad a Brodur vorum, sioande Angist hans Andar, þa hann grꜳtbæn-de oss, og vier villdum ecke heyra hann, og þarfyrer kiemur nu þesse Hormung yfer oss.

22. Ruben svarade þeim og sagde, Hvort sagde eg ydur ecke þetta? Þa eg sagde, syndgest ecke a Sveinenum, enn þier villdud ecke hlyda mier? Nu utheimtest hans Blood.

23. Enn þeir vissu ecke ad Joseph skilde þad, þvi hann talade vid þa fyrer einn Tulk.

24. Og hann snere sier fra þeim og griet. Enn sem hann snere sier nu til þeirra aptur, og talade vid þa, þa tok hann af þeim Simeon, og batt hann fyrer þeirra Augum.

25. Og Joseph baud ad fylla skyllde Secke þeirra med Korn, og lꜳta j Secke þeirra aptur sierhvors þeirra Peninga, þar med og Neste uppa Veigenn, Og so giordu þeir vid þa.

26. Og þeir logdu sijna Voru uppa sijna Asna, og foru j burt þadann.

27. Enn sem einn þeirra leyste til sijns Secks, og villde giefa sijnum Asna Foodur j Herbergenu, þa fann hann sijna Peninga, ad þeir lꜳu ofann a j Secknum.

28. Og hann sagde til sinna Brædra, Mijner Peningar eru komner til mijn aptur, sioa, þeir eru hier j mijnum Seck. Þa fiell þeim Hugur, og þeir urdu felms-fuller jnnbyrdis og sogdu, Hvoriu mun þad sæta, ad Gud hefur giort oss þetta?

29. Enn sem þeir komu nu heim til sijns Fodurs Jacobs, j þad Landed Canaan, kunngiordu þeir honum allt þad sem yfer þa hafde geinged, og sogdu.

30. Sa Madur sem er Herra j þvi Lande, hann talade hardlega til vor, og hiellt oss fyrer Landsins Niosnara.

31. Enn þa vier svorudum honum, Vier erum erleger og vorum alldrei Niosnarar,

32. Hell-

32. Helldur erum vier Tolf Brædur vors Fodurs Syner, og sa eirn er ecke meir til, enn sa yngste er enn nu heima hia vorum Fodur j Canaans Lande.

33. Þa sagde Landsherrann til vor, Þar af vil eg merkia hvort þier erud fromer edur ei, Lated einn af ydrum Brædrum vera hier epter hia mier, enn þier taked þad sem þorf giörest handa ydar Hwsum og fared af stad,

34. Og hafed so ydarn yngsta Brodur til mijn hingad, Þa merke eg, ad þier erud ecke Niosnarmenn, helldur erleger, þa vil eg giefa ydur ydar Brodur aptur, og skulud þier meiga kaupslaga hier j Lande.

35. Enn sem þeir helltu Kornenu wr sijnum Seckium, þa fann hvør um sig sinn Peninga Knytelskauta j sijnum Seck. Og sem þeir sau, ad þad voru þeirra Peninga knytelskautar, þa urdu þeir Felms-fuller, og so þeirra Fader.

36. Þa sagde Jacob þeirra Fader til þeirra, þier ræned mig mijnum Bornum. Joseph er ecke a Dogum, og Simeon er j burtu, BenJamin vilied þier j burt taka, og allt þetta kiemur yfer mig.

37. Ruben svarade sijnum Fodur, og sagde, ef eg fære þier hann ecke aptur, þa sla þu bæda mijna Sonu ihel, Sel þu hann ecke utann j mijna Hond, eg vil færa þier hann aptur.

38. Hann sagde, minn Son skal ecke fara ofann þangad med ydur, þvi hans Broder er andadur, og hann er einn epter ordenn, ef honum fielle nockur Olucka til a Veigenum heim þier fared, þa munud þier leida mijnar Hærur med Hiartans Sorg j Grøfena.

## XLIII. Capitule.

Syner Jacobs ferdast til Egyptalands og med þeim Benjamin.

Nu sem Hallæris Tijdenn þreyngde þeim fast j Landenu.

2. Og er þvi Korne var loked sem þeir hofdu flutt af Egyptalande, þa sagde þeirra Fader til þeirra, Fared aptur þangad, og kauped oss nockrar Fædslur.

3. Þa svarade Juda honum og sagde, sa Madur lagde þad streingelega fyrer oss og sagde, þier skulud ecke sia mitt Andlit, nema þvi ad eins, ad ydar Broder sie med ydur.

4. Sie þad nu so, ad þu sender vorn Broder med oss, þa vilium vier ferdast þangad, og kaupa þier Atvinnu,

5. Enn vilier þu ecke senda hann med oss, þa forum vier ecke ofann þangad, þviad sa Madur sagde til vor, þier skulud ecke sia mijna Asionu, nema þvi ad eins, ad ydar Broder sie med ydur.

6. Israel svarade, hvar fyrer hafed þier giort so jlla vid mig, ad þier sogdud honum ad þier ættud enn nu einn Broder?

7. Þeir svorudu, Sa Madur spurde oss so nakvæmlega ad oss og vorre Ætt, og sagde, lifer ydar Fader enn nu? Edur eiged þier enn nu einn Brodur til? Þa svorudum vier honum epter þvi sem hann oss adspurde. Eda hvørnenn mætte oss þad j Hug koma, ad hann munde seigia, færed ydarn Brodur ofann hingad med ydur?

8. Þa sagde Juda til Israels sijns Fodurs, lattu Sveinenn fara med mier, so vier meigum bua oss til og ferdast, og lifum, og deyum ecke, bæde vier og þu, og vor Smæborn.

9. Eg vil vera j Borgun fyrer hann, þu skallt krefia hans af mijnum Hondum. Og ef eg fære þier hann ei aptur, og set hann fyrer þijn Augu, þa vil eg bera þa Skulld alla mijna Daga.

10. Þvi hefdum vier ecke tafed, þa værum vier alla reidu tvær Reisur aptur komner.

11. Þa sagde þeirra Fader Israel til þeirra, first þad hlytur so vera, þa giored þad, og taked af þeim besta Avexte Landsins j ydar Secke, og færed þeim Manne Giafer ofann þangad, nockud af Balsamo, Hunange, og Jurtum, og Myrrhu, og Dattel, og Mandel.

12. Taked og adra Peninga med ydur, og

þa Peninga sem komner voru efst ofann a ydar Secke, hafed aptur med ydur, skie ma ad villast hafe moatt um.

13. Taked og hier til ydarn Brodur, taked ydur upp og fared aptur til þessa Manns.

14. Enn GUD Almoattugur giefe ydur Miskunsemie fyrer þeim Manne, so hann loate koma þann annann ydarn Brodur, og þennann BenJamin, aptur heim med ydur, enn eg hlyt nu ad vera, so sem sa ad ræntur er sijnum Bornum.

15. So tooku þeir þessar Goafur, og tvøfallda Peninga med sier, og BenJamin, tooku sig upp, og fooru j Egyptaland, og geingu fyrer Joseph.

16. Þa leit Joseph þa, asamt med Ben Jamin, og sagde til sijns Roadsmanns, Filg þessum Monnum til Herbergis, sloatra og reid til, því þeir skulu eta med mier Middags Verd.

17. Og Madurenn giorde sem ad Joseph bijfalade honum, og filgde Monnunum j Josephs Hwss.

18. Enn þeir ottudust, fyrer því, ad þeir voru leidder jnn j Josephs Hwss, og sogdu, vier erum loatner hier jnn fyrer sokum þeirra Peninga sem vier fundum oadur j vorum Seckium, so ad hann bere þad ad oss, og loate sijdann einn Dom ganga yfer oss, so hann kunne med þessu ad taka oss til Præla, med vorum Osnum.

19. Þar fyrer geingu þeir til Josephs Roadsmanns, og toludu vid hann, fyrer Dyrum vte, og sogdu,

20. Minn Herra, vier foorum fyrre ofann hingad, ad kaupa Fædslur,

21. Og þa vier komum til Herbergis, og leystum til vorra Seckia, sioa, þa faun hvor einn sijna Peninga, ofann a j sijnum Seck, med fullre Vigt, og því hofum vier fært þa hingad med oss aptur.

22. Vier hofum og teked adra Peninga med oss, ad kaupa oss Fædslur fyrer, enn vier vitum ecke, hvor lagt mun hafa vora Peninga aptur j vora Secke.

23. Þa sagde hann, vered til frids, ottest ecke, ydar GUD, og ydra Fedra GUD, hefur giefed ydur Fiesiod j ydra Secke, eg medtok ydra Peninga. Og hann leidde Simeon vt til þeirra

24. Og leidde þa j Josephs Hwss, og gaf þeim Vatn, ad þvo sijnar Fætur, so gaf hann og þeirra Osnum Foodur.

25. Enn þeir tilreiddu sijnar Giafer, j mote því, ad Joseph munde koma um Middagenn, því þeir hofdu heyrt ad þeir skylldu soa þar Matar.

26. Enn sem Joseph gieck nu jnn j Hwsed, boaru þeir honum þeirra Goafur j sijnum Hondum, og fiellu nidur til Jardar fyrer honum.

27. Enn hann heilsade þeim blijdlega og sagde, Hvorsu moa sa gamle Madur ydar Fader, af hvorium þier sogdud mier, lijer hann enn nu?

28. Þeir svorudu, vel moa þinn Pienare vor Fader, og hann lifer enn nu. Og þeir lutu og fiellu nidur fyrer honum.

29. Þa upplypte hann sijnum Augum, og soa sinn Brodur BenJamin sinnar Modur Son, og sagde, hvort er þad ydar yngste Broder, soa er þier sogdud mier fra? Og hann sagde frammveigis, GUD miskune þier minn Son.

30. Og Joseph flytte sier, því hans Hiarta brann af oast til sijns Brodurs, og hann leitade epter hvar hann kynne ad groata, og hann gieck jnn j sitt Svefnhwss, og griet þar.

31. Og sem hann hafde þveiged sitt Andlit, gieck hann vt, og liet ecke a sier sioa, og sagde, legged Braud a Borded.

32. So boaru Pienararner sierilage fyrer hann, og sierilage fyrer hans Brædur, og sierlage fyrer þa Egyptsku, sem oatu med honum, þviad ecke kunna Egyptser ad eta med Ebreskum, því þad er þeim svijvirdulegt.

33. Og þeir voru setter þvert yfer fra honum, sa Frumgietne epter sinne Frumgietningu,

ningu, og soa hinn yngste epter sijnum unga Alldre, þad undrudust þeir sijn j mille.

34. Og Matur var settur af hans Borde til þeirra, enn BenJamin fieck Fimmsinnum meira enn hiner adrer. Og þeir druncku og urdu druckner med honum.

## XLIV. Capitule.

(I) Brædur Josephs giorast miøg Sorgbitner; Enn (II) Juda talar vid Joseph.

I. 1. Joseph baud sijnum Radsmanne, og sagde, Fyll þu þessara Manna Secke med Fædslur, so miked sem þeir kunna ad bera, og legg Peninga sierhvørs þeirra efst j hvørs Seck,

2. Og legg mitt Silfurkier efst j þess yngsta Seck, med þeim Peningum sem komu fyrer Korned. Hann giorde sem Joseph tilsagde honum.

3. Um Morguninn, þa liost var orded, lietu þeir Mennena fara af stad med sijnum Osnum.

4. Og er þeir voru skammt burt farner af Stadnum, þa sagde Joseph til sijns Radsmanns, Rijs upp, og far epter þessum Monnum, og þa þu fær þa hondlad, þa seig til þeirra, hvar fyrer hafed þier bitalad illt fyrer gott?

5. Er þad ecke þad sem minn Herra dreckur af, og hvørt hann hefur til sijns Spadoms? Þier hafed vondslega giort.

6. Og þa hann hafde høndlad þa, þa talade hann þesse Ord vid þa.

7. Þeir svorudu honum, þvi mæler minn Herra soddann Ord? Fiarlægt sie þad þijnum Þienorum ad giora slijkt.

8. Sia, þa Peninga sem vier fundum efst j vorum Seckium, færdum vier þier hingad aptur ur Canaanslande, og hvørnenn skylldum vier þa nu stela annad hvørt Silfre eda Gulle vor þijns Herra Hwse?

9. Hia hvørium sem þad finnst, a medal þinna Þienara, hann skal deya, þar til vilium vier og so vera mijns Herra Þionar.

10. Hann sagde, Ja, þad sie so sem þier hafed mællt, hia hvørium sem þad finnst, hann skal vera minn Þræll, enn þier skulud vera frij.

11. Þa hrodudu þeir sier, og tok hvør ofan sijnar Klifiar, og logdu a Jord, og hvør eirn leyste til sijns Secks.

12. Og hann rannsakade, og hoof upp hia þeim ellsta, og til hins yngsta, þa fannst Bordkiered j Seck BenJamins.

13. Þa rifu þeir sijn Klæde, og sierhvør lagde uppa sinn Asna, og foru j Borgena aptur.

II. 14. Og Juda gieck med sijnum Brædrum j Josephs Hws, þviad hann var þar þa enn. Og þeir fiellu framm fyrer honum nidur a Jordu.

15. Þa sagde Joseph til þeirra, þvi þordud þier ad giora þetta? Vited þier ecke, ad þvilijkur Madur sem eg er, kann vissulega uppfyst ad giora?

16. Juda sagde, hvad skulum vier seigia mijnum Herra, eda hvad skulum vier tala? Eda hvørnenn kunnum vier ad afsaka oss? Gud hefur funded Ranglæte þinna Þienara. Sia, vier og hann sem Bordkiered fannst hia erum mijns Herra Þionar.

17. Hann sagde, þad sie langt fra mier ad giora þad. Sa Madur hia hvørium Kiered fannst hann skal vera minn Þion. Enn fared þier j Fride upp til ydars Fodurs.

18. Þa gieck Juda framm ad honum, og sagde, minn Herra, Leyf þijnum Þienara ad tala eitt ord fyrer þijnum eyrum,

19. Minn Herra, og ad þijn Reide gremiest ecke yfer þijnum Þienara, þvi þu ert sem sialfur Pharao. Minn Herra spurde sijna Þienara ad, og sagde, Hafed þier og einn Fodur eda Brodur?

20. Þa svorudum vier, vier høfum einn gamlann Fodur, og einn ungann Svein, sem hann gat j sinne Elle, enn hans Broder er latenn, og þesse er einn epter, epter sijna Modur, og hans Fader elskar hann.

21. Þa sagder þu til þinna Þienara, færed

 hann

hann hingad ofann til mijn, eg vil audsyna honum Nead.

22. Þa svorudum vier mijnum Herra, Sveirnenn ma ecke koma fra sijnum Fodur, enn ef hann fer fra honum, þa deyr hann.

23. Þa sagder þu til þinna Pienara, kome ecke ydar yngste Broder hingad med ydur, þa skulud þier ecke sioa mitt Andlit framarmeir.

24. Þa foorum vier af Stad, upp til þijns Pienara mijns Fodurs, og kunngiördum honum mijns Herra Ord.

25. Þa sagde vor Fader, Ferdest af Stad aptur, og kauped oss fædslur nockrar.

26. Þa svorudum vier, ecke kunnum vier ad fara ofann þangad, nema þvi ad eins, ad vor yngste Broder sie med oss, þa viljum vier fara ofann þangad, þvi vier þorum ecke ad sioa þess Manns Andlit, ef vor yngste Broder er ecke med oss.

27. Þa sagde þinn Pienare minn Fader til vor, þier vited ad mijn Kvinna hefur fædt mier tvo,

28. Annar þeirra foor heimann fra mier, og seigia Menn ad hann hafe vered rifenn jhel, og sijdann hef eg ei sied hann.

29. Og ef þier taked nu þennann og so fra mier, og kiemur honum nockur olucka til, þa munud þier leida mijnar Hærur nidur i Grofena med Harme.

30. Nu ef eg kiem heim til þijns Pienara, mijns Fodurs, og Sveirnenn er ecke med oss, fyrer þvi, ad hans Sal hanger vid Sveinsins Sal.

31. Þa mun so fara, nær hann sier, ad Sveirnenn er ecke þar, þa mun hann deya, so færdum vier þa, þijner Pienarar, hærur vors Fodurs þijns Pienara, med Hiartans Sorg j Grofena.

32. Þviad eg þinn Pienare er j Borgun fyrer Sveinenn, vid minn Fodur, og eg sagda, ef eg fære hann þier ecke aptur, þa vil eg sekur vera alla mijna Daga.

33. Lat nu þar fyrer þinn Pienara vera epter j Sveinsins Stad, ad þiona mijnum Herra, og lat Sveinenn fara upp med synum Brædrum,

34. Þviad hvornenn giæte eg fared, upp til mijns Fodurs, ef ad Sveirnenn er ecke med mier? eg hlyte þa ad sioa uppa þa Hörmung sem koma munde yfer minn Fodur.

# XLV. Capitule.

Joseph auglyser sig fyrer Brædrum sijnum.

Þa gat Joseph ecke halldet sier leingur, fyrer ollum þeim sem stodu j kringum hann, og hann kallade. Lated hvorn Mann fara ut fra mier, og þar stood ecke eirn Madur epter hia honum, þa Joseph liet sijna Brædur þekkia sig.

2. Og hann griet med hvarre Roddu, so þad heyrdu Egyptsker, og þeir j Pharaonis Huse.

3. Og hann sagde til sinna Brædra, Eg er Joseph, Lifer minn Fader enn nu? Enn hans Brædur mattu ongvo svara honum, so hrædder voru þeir ordner fyrer hans Auglite.

4. Þa sagde hann til sinna Brædra, Komed hingad til mijn! og er þeir geingu til hans, þa sagde hann, Eg er Joseph ydar Broder, hvorn þier selldud j Egyptaland.

5. Vered ecke umsorgande, og hugsed ecke ad eg sie þar fyrer reidur, ad þier selldud mig hingad, þviad ydur til Lijfs-Hialpar hefur GUD sendt mig hingad fyrer ydur.

6. Þviad tvo Aar eru sijdann þetta Hallære kom j Landed, og þar eru enn nu epter fimm Aar, a hvorium Menn skulu hvorke plægia nie Haustyrkiu jnn-safna.

7. Enn GUD hefur sendt mig hingad undann ydur, ad hann vill lata ydur halldast vid a Jordunne, og frelsa ydart Lijf med storre frelsan.

8. Og eige hafed þier sendt mig hingad, helldur Gud, hann hefur sett mig Fodur Pharaonis, og einn Herra yfer allt hans Hws, og einn Hofdingia yfer allt Egyptaland.

9. Flyted ydur nu, og fared upp til mijns Fodurs og seiged honum, Þetta seiger Joseph þinn Son, Gud hefur sett mig til Hofdingia yfer allt Egyptaland, Kom ofann til mijn, tef þu ecke,

10. Þu skallt bwa j Landenu Gosen, og vera nærre mier, þu og þijn Born, og þijn Barna born, þitt Kvikfie smatt og stort, og allt þad þu hefur,

11. Þar vil eg forsorga þig. Þvi þar standa enn nu fimm Hallæris aar epter, So ad þu ecke fordiarfest, med þijnu Hwse, og ollu þvi þu hefur.

12. Siaed, ydar Augu siaa þad, og mijns Brodurs BenJamins Augu, ad eg tala munnlega vid ydur.

13. Kunngiored mijnum Fodur alla mijna Vegsemd j Egyptalande, og allt þad sem þier hafed sied, Fared skyndelega, og komed ofann hingad med mijnum Fodur.

14. Og hann fiell um Hals sijnum Brodur BenJamin, og griet, og BenJamin griet og so um hans Hals.

15. Og hann mynntist vid alla sijna Brædur, og griet yfer þeim. Epter þetta toludu hans Brædur vid hann.

16. Þesse tijdende komu j Pharaonis Hws, ad Josephs Brædur voru komner, þad lijkade Pharaoni vel, og ollum hans Þienorum.

17. Og Pharao sagde til Josephs, seig þu þijnum Brædrum, Giored so, Klified ydar Dyr, og fared af stad; Nær þier komed j Canaans Land,

18. Þa taked ydar Fodur, og ydart folk, og komed til mijn, Eg vil giefa ydur Gots j Egyptalande, ad þier skulud eta Merg Landsins. Og biod þeim, giored so.

19. Taked ydur Vagna af Egyptalande, handa ydar Bornum og Konum, og taked ydarn Fodur, og komed.

20. Og lijted ecke vid vegna ydar Bwsbwhluta, þvi Audæfe alls Egyptalands skulu vera ydar.

(a) (Bwsbwhluta) Laated ydar Bwhlute ecke hindra ydur, hvad þier kunned ecke ad selia j þessu Hallære, þad laated bliifa epter.

21. Og Israels Born giordu so. Og Joseph fieck þeim Vagna, sem Pharao baud, og so Neste a Veigenn.

22. Hann gaf og hvorium þeirra einn Hatijda klædnad. Enn BenJamin gaf hann þriu hundrud Silfurpeninga, og Fimm helgra Daga Klæde.

23. Og hann sende sijnum Fodur þar med tiju Asna Klifiada med Gots af Egyptalande, og tiju Osnur klifiadar af Korne, Braude og Vistum handa sijnum Fodur a Veigenn.

24. So sleppte hann sijnum Brædrum, og þeir foru j burtu. Og hann sagde til þeirra, Deiled ecke a Veigenum.

25. Þeir foru af Egyptalande, og komu j Canaansland, til sijns Fodurs Jacobs,

26 Kunngiordu honum, og sogdu, Joseph Lifer enn nu, og er einn Herra yfer ollu Egyptalande; Enn hans Hiarta hugsade allt annad, þvi hann trwde þeim ecke

27. Þa sogdu þeir honum oll Josephs ord, sem hann hafde sagt til þeirra. Og sem hann saa þa Vagna sem Joseph hafde sendt honum til flutnings þangad, þa lifnade Ond Fodurs þeirra Jacobs.

28. Og Israel sagde, Þad er mier noog ad minn Son Joseph lifer enn nu, Eg vil fara og siaa hann, aadur enn eg andast.

## XLVI. Capitule.

Jacob ferdast til Sonar sijns Josephs j Egyptalande.

Israel * for j burt med ollu þvi hann aatte. Og sem hann kom til BerSaba offrade hann sijns Fodurs Isaacs Gude forner.

* Eb: Post: 7, 15.

2. Og Gud sagde til hans, um Nott, j einne Syn, Jacob! Jacob! Hann svarade, Hier er eg.

3. Og hann sagde, Eg er Gud, þijns Fodurs Gud, ottast þu ecke ad fara ofann j Egyptaland, þviad þar vil eg giora þig ad eirne mikellre Þiod.

4. Eg vil fara ofann med þier j Egyptaland, og eg vil leida þig upp aptur hingad, Og Joseph skal leggia sijnar hendur yfer þijn augu.

5. Jacob tok sig upp fra Bersaba, og Israelis Syner fluttu þeirra Fodur Jacob, med sijnum Smaabørnum og Kvinnum, i Vøgnum þeim sem Pharao hafde sendt, ad flytia þa a.

6. Og þeir toku sitt Kvikfie, og alla þa Fiarhlute sem þeim hafde aflast i Canaans Lande, og komu i Egyptaland, Jacob og allt hans Sæde med hønum.

7. Hans Syner og hans Sonarsyner med hønum, hans Dætur og hans Barna dætur, og allt hans Sæde flutte hann med sier til Egyptalands.

8. Þesse eru Israels Barna Nøfn, sem komu i Egyptaland. Jacob og hans Syner. Ruben Jacobs Frumgietinn Son.

9. Rubens Born, Hanoch, Pallu, Hezron, og Charmi.

10. Simeons Born Jemuel, Jamin, Ohad, Jachin, Zohar og Saul, Sonur þeirrar Canversku Kvinnu.

11. Levi Born, Gerson, Cahath, og Merari.

12. Juda Born, Ger, Onan, Selah, Perez, og Serah. Enn Ger og Onan deydu i Lande Canaan. Enn Perez Born Hezron og Hamul.

13. Isaschar Born, Thola, Phua, Job og Semron.

14. Sebulons Born, Sered, Elon, og Jahleel.

15. Þesse eru Born komenn af Lea, sem hun fædde Jacob i Mesopotamia med sinne Dottur Dina, Þessar allar Saaler voru ad tolu þriatijgu og þrijr med Sonum og Dætrum.

16. Born Gads, Ziphion, Haggi, Suni, Ezbon, Eri, Arodi og Areli.

17. Born Asser, Jemna, Jesua, Jesui, Briah, og Sera þeirra Syster. Enn Born Bria, Heber og Malchiel.

18. Þesse eru þau Born Silpa, sem Laban gaf sinne Dottur Lea, og hun fædde Jacob þessar sextan Saaler.

19. Born Rachelar Jacobs Kvinnu, Joseph og BenJamin,

20. Og Joseph gat i Egyptalande Manasse og Ephraim, sem Asnath Potiphars Dotter Kiennemannsins i On fædde hønum,

21. BenJamins born, Bela, Becher, Asbel, Gera, Naaman, Ehi, Ros, Mupim, Hupim og Ard.

22. Þesse eru þau born af Rachel sem hun fædde Jacob, aller samann Fiortan Saaler.

23. Born Dan, Husim.

24. Born Nephthali Jahzeel, Guni, Jesser og Sillem.

25. Þesse eru Born komenn af Bilha, sem Laban gaf sinne Dottur Rachel, og hun fædde Jacob þessar sio Saaler.

26. Allar Saaler sem komu med Jacob i Egyptaland, og komnar voru af hans Lendum (ad undan teknum hans Sonar konum) eru allar samann sex og sextijger Saaler.

27. Enn Josephs Syner sem fædder eru i Egyptalande, eru tvær Saaler. So ad allar Saaler sem komu i Egyptaland, af Jacobs Hwse, voru siotijgu.

28. Og hann sende Juda undann sier til fundar vid Joseph, ad hann vijsade sier til Gosen, og þeir komu inn i Landed Gosen.

29. Þa liet Joseph spanna fyrer sinn Vagn, og dro til fundar vid Fodur sinn Israel, upp til Gosen, Og sem hann saa hann, fiell hann um hans Hals, og griet leinge um hans Hals.

30. Þa sagde Israel til Josephs, Giarnann vil eg nu deya, first þad eg hefe sied þitt Andlit, ad þu enn nu lifer.

31. Joseph sagde til sinna brædra, og til sijns Fodurs huss, Eg vil fara upp, kunngiora Pharaoni, og seigia til hans, Mijner bræður, og mitt Fodur-hws er komid til mijn af Lande Canaan,

32. Og eru Fiarhirdarar, þvi þeir eru menn, sem umgeingist hafa med Fie, þeirra Kvikfie smaatt og stort, og allt þad þeir eiga, hafa þeir haft hingad med sier,

33. Þa Pharao kallar ydur nu fyrer sig og seiger, Hvad er ydar Idia, af hvorre þier næred ydur?

34. Þa

34. Þa skulud þier seigia, Þijner Þienarar eru þeir menn sem ungangast med Kvikfie, fra vorum ungdome allt til þessa, bæde vier og vorer Forfedur, so þier meigid bwa j Lande Gosen. Þviad þeir Egyptisku hafa andstyggd a ollum Fiwarhyrdurum.

## XLVII. Capitule.

(I) Jacob byr i Landenu Gosen; (II) J Egyptalande er mikel Dyr Tijd. (III) Jacob vill ecke lata jarda sig j Egyptalande.

I. Þa kom Joseph, og talade vid Pharaonem, og sagde, Minn Fader, og mijner Brædur, þeirra Kvikfie sm att og stort, og allt þad þeir eiga er komid af Canaans Lande, Og sia, þeir eru j Lande Gosen.

2. Og hann took fimm af sijnum yngstum Brædrum, og skickade þa inn fyrer Pharaonem.

3. Þa talade Pharao til hans Brædra, Hvor er ydar næringar-idia? Þeir svorudu, Þijner Þienarar eru Fiwarhyrdarar, vier og vorer Forfedur.

4. Og sogdu frammveigis til Pharao, Vier erum komner til ad bwa hia ydur hier j Lande, þvi þijner Þienarar hafa ongva Fædu til sijns Kvikfienadar, so storlega þrengjer Hallære Canaans Land. Þar fyrer leyf nu þijnum Þienurum ad bwa j Lande Gosen.

5. Pharao sagde til Josephs, þad er þinn Fader og þijner Brædur sem eru komner til þijn.

6. Egyptaland stendur oped fyrer þier, lat þa bwa j þvi besta Plaatse Landsins, (a) bwe þeir j Lande Gosen. Og ef þu veitst nockra dugnadar menn vera a medal þeirra, þa set þa yfer mijnar Hiarder.

(a (Bwo) Vere Gester og Inn-toku menn, framan be, enn ecke innbyggendur, edur Heimilis Menn j Verolldunne.

7. Joseph leidde og so sinn Fodur Jacob til fundar vid Pharonem, og skickade hann framm fyrer hann. Og Jacob blessade Pharaonem.

8. Enn Pharao spurde Jacob ad, Hvad gamall ert þu?

[Jacob er 130 ara gamall þa hann kiemur j Egyptaland, og hefur þesse reisa til Egyptalands skied 215 arum epter þad Abraham var kalladur burt fra Haran.]

9. Jacob sagde til Pharaonem, Minn Utlendingskapar-tijme er Hundrad og þriatijge ar, Fæer og iller eru mijner Lijfdagar, og na ecke tijma minna Forfedra, j þeirra Utlendingskap.

10 Og Jacob blessade Pharaonem, og gieck wt fra honum.

11. Enn Joseph skickade sijnum Fodur og sijnum Brædrum Bwstade, og gaf þeim eigner j Egyptalande, þar bester voru Landskoster, sem var j Lande Rameses, so sem Pharao hafde boded.

12. Og Joseph forsorgade sinn Fodur, og sijna brædur, og allt sitt Fodurs hws, sier hvorn epter þvi sem hann hafde Born til.

II. 13. Enn þar var eckert Braud j ollum Londum, þviad Hallæred var miog þungt, so ad Egyptaland og Canaan vanmegnadest af þvi Hallære.

14. Og Joseph safnade ollum Peningum til samans sem fundust j Egyptalande og Canaan, fyrer þad Korn sem þeir keyptu, og hann liet þa alla Peninga j Pharaonis Hws.

15. Nu sem þa þraut Peninga j Egyptalande og Canaan, þa komu aller Egyptsker til Josephs, og sogdu, Gief oss Braud, þvi lætur þu oss deya fyrer þier, þo ad vier hofum ei Peninga?

16. Joseph svarade, Hafed hingad ydar Kvikfie, so vil eg giefa ydur fyrer Kvikfied, first ad þier hafed ecke til Peninga.

17. So færdu þeir Joseph sitt Kvikfie. Og hann gaf þeim Korn fyrer þeirra Hesta, Saude, Uxa, og Asna. So hialpade hann þeim med Braud, þad ar j giegnum, fyrer allt þeirra Kvikfie.

18 Enn sem þad ared var wte, komu þeir þad annad ar til hans og sogdu honum, vier viljum ecke dylia þess fyrer Herra vorum, ad

ad ei alleinasta Peningar helldur og so Kvikfied er j burt, og komid til vors Herra. og vier hofum ecke meira epter, handa vorum Herra, utann vora Lijkame og vorar Jarder,

19. Þvi lætur þu oss deya, og vora Akra verda j eyde? Kaup þu oss og vorar Jarder fyrer Brand, ad vier med voru Lijfe og Jarda Gotse verdum Pharaonis eign, gief oss Sæde, so vier meigum lifa og ecke deya, og ad Akrarner ecke eydest.

20. So keypte Joseph allt Egypta-Land, til Handa Pharaone, þvi þeir Egyptsku selldu hvor sijnar Jarder, þviad hungred laa so strijdt a þeim, og med þessu vard Landed Pharaonis eign.

21. Og hann wtskipte Folkenu um Borgernar, fra þeim einum Egyptalands enda til annars.

22. Ad undanteknum Prestanna Jordum, þær keypte hann ecke, þviad Pharao hafde skickad Prestunum, hvar af þeir skylldu næra sig, og var anafnad þad sem hann hafde giefed þeim, þar fyrer þurftu þeir ecke ad selia sijnar Jarder.

23. Þa sagde Joseph til Folksins, Sioa, eg hefe j Dag keypt ydur og ydar Akra, Pharaone til eignar,

24. Sioa, þar hafed þier Korn til ad saa Jordena. Enn af Kornenu skulud þier giefa Pharaone Fimmtung, þeir fiorer Hluter skulu vera ydar, til Saads og Fædslu, fyrer ydar Hws og Born.

25. Þeir sogdu, laat oss ad eins lifa, og finna Naad fyrer þier vorum Herra, vier vilium giarnann vera Pharaonis Þrælar.

26. So skickade Joseph þeim ein Log, jnn til þessa Dags, yfer allt Egypta-Land, ad hvor Madur skyllde giefa Pharaone þann Fimmta Hlut, undanteknum Prestanna Jordum, sem ecke komu under Pharaonem.

III. 27. So var Jsrael bwande j Egyptalande, j Lande Gosen, og hielldu sig þar. Og þeir uxu og margfollduduft miog.

28. Og Jacob lifde Seitjan aar j Egyptalande, So ad hans allur Alldur vard Hundrad, Sio og fioratiju aar.

29. Nu sem naalgadest Andlaats tijd Jsraels, þaa kallade hann sinn Son Joseph, og sagde til hans, Hafe eg funded Naad fyrer þier, þa legg þijna Hond under mijnar Lendar, ad þu vilier syna mier Kiærleika og trw, og jarda mig ecke j Egyptalande,

30. Helldur vil eg liggia hiaa mijnum Forfedrum, Og þu skallt flytia mig af Egyptalande, og jarda mig j þeirra Grof. Hann sagde, Eg vil giora so sem þu hefur sagt.

31. Enn hann sagde, so sver mier þar Eid uppa. Og hann soor honum, þa (b) hneigde Jsrael sig j Sængenne ad Hofdalagenu.

(b) (Hneigde) Hann la siukur j Sængenne, þo reiste hann sig upp og hneigde sig til Hofdalagsins, tilbad Gud og þackade honum, under eins vann Joseph Eidenn.

## XLVIII. Capitule.

Jacobs Testament um Ephraim og Manasse.

Þar epter var Joseph sagt, Sioa, þinn Fader er siukur. Þa tok hann sijna baada Sonu, Manasse og Ephraim med sier.

2. Þa var sagt Jacob, Sioa, þinn Sonur Joseph kiemur til þijn.

3. Þa hreyste Jacob sig, og settest upp j Sænginne, og sagde til Joseph. Almaattugur Gud birtest mier j Lus j Lande Canaan, og blessade mig,

4. Og sagde til mijn, Sioa, eg vil laata þig vaxa og margfalldast, og giora þig ad Fiolda Folks, og eg vil giefa þijnu Sæde epter þig þetta Land til æfinnlegrar Eignar.

5. So skulu nu þijner tveir Syner Ephraim og Manasses, sem þier eru fædder j Egyptalande, adur enn eg kom hingad til þijn, vera mijner, lijka sem Ruben og Simeon.

6. Enn þeir sem þu aatt hier epter, þeir skulu vera þijner, og kallast sem þeirra Brædur, j þeirra Arfskipte.

7. Og þa eg kom af Mesopotamia, andadest

dadest Rachel fyrer mier, j þvi Lande Ca-
naan, a þeim Veige þa eg var enn skammt
eitt fra Ephrath, og eg groof hana þar j
þeim sama Stad a Veigenum til Ephrath,
sem nu kallast Bethlehem.

8. Og Israel sea Josephs Sonu, og sag-
de, Hvorier eru þesser? Joseph svarade sij-
num Fodur,

9. Þesser eru mijner Syner sem GUD
hefur hier giefed mier. Hann sagde, leid þa hin-
gad til mijn, so ad eg blesse þa,

10. Þviad Israel glaptest Syn af Elle,
so hann gat ecke vel sied. Og hann leidde
þa til hans, enn hann kysste þa, og tok þa j
faang sier,

11. Og sagde til Josephs, siaa, eg hefe
sied þitt Andlit, hvad eg hafde ecke þeinkt, og
siaa, GUD hefur ad auk þess, lated mig
og siaa þitt Sæd.

12. Og Joseph tok þa af hans Fadme,
og hneigde sig til Jardar moote hans Aug-
lite.

13. So tok Joseph þa baada, Ephraim
sier til hægre Handar, mot Israels vinstre
Hond, enn Manasse til Vinstre handar, mot
Israels hægre Hond, og leidde þa til hans.

14. Enn Israel riette sijna Hægre Hond
wt, og lagde hana a Ephraims Hofud sem
var yngre, og sijna Vinstre hond a Manasses
Hofud, og hagade viliande so sijnum Hon-
dum, þvi Manasses var sa hinn Frumgietne.

15. Og hann blessade Joseph, og sagde,
Gud, j hvørs Auglite mijner Forfedur Abra-
ham og Isaac geingu, sa Gud sem ad forsor-
gade mig mijna Lijfs tijd jnn til þessa Dags.

16. Sa Eingell sem mig hefur frelst fra ollu
vondu* hann blesse þessa Sveina, ad þeir kal-
lest (a) epter mijnu Nafne, og epter minna
Forfedra Abrahams og Isaacs nafne, og þeir
vaxe og verde marger a Jordunne. *Ebr. 11, 21.

(a) (Epter) þad er, þeir skulu kallast mijner Syner.

17. Enn sem Joseph saa þad, ad Fader
hans lagde sijna hægra Hond uppa Ephraims
hofud, þa mislijkade þad honum. Og hann
tok um sijns Fodurs Hond af Hofde Ephra-
im, og villde hafa viked henne fra Ephraims
Hofde, og uppa Hofud Manasses.

18. Og sagde til hans, Ecke so, minn Fa-
der, þesse er sa hinn Frumgietne, legg þijna
hægre Hond uppa hans Hofud.

19. Enn hans Fader neitade þvi, og sagde,
Eg veit þad vel, minn Son, eg veit þad vel.
Þesse skal og verda ad Folke, og margfalldast,
Enn hans yngre Broder skal verda meire enn
hann, og hans Sæde skal verda eitt mikid
Folk.

20. So blessade hann þa þann sama Dag,
og sagde, Hvør sem vill blessa nockurn j
Israel, hann skal seigia, Gud setie þig lijka
sem Ephraim og Manasse. Og sette so Ephra-
im fyrer Manasse.

21. Og Israel sagde til Josephs, Siaa,
eg andast, Og Gud mun vera med ydur, og
leida ydur aptur j ydart Fodurland.

22. Eg hefe giefed þier einn (b) Hluta
Landsins, framm yfer þijna Brædur, hvorn
eg tok af Amorita Hende, med mijnu Sverde
og Boga.

(b) (Hluta) Hlute kallast a Ebreſku Sichem, og þann
sama stad meinar hann hier. Jos. 13, 7.

## XLIX. Capitule.

(I) Jacobs Spaadomur, og (II) Daude.

I. Jacob kallade sijna Sonu fyrer sig, og
sagde,

2. Safned ydur til samans, so eg meige
kunngiøra ydur, hvad yfer ydur mun koma,
a epterkomande tijmum, Heimtest samann,
og hlyded til þier Jacobs Born, og heyred
ydarn Fodur Israel.

3. (a) Ruben minn Firste son, Þu ert
minn Kraptur, og mijn firsta Magt, yppar-
stur j Offre, og ypparstur i Rijkenu.

(a) (Ruben) hann skyllde hafa haft Frumgietningar-
rennar virding, sem var Kiennedomenn og Kong-
domenn, enn nu er hvorutveggia fra honum, og
Kiennemannskapurinn giefenn Levi, enn Kongdo-
murinn Juda. Hier skrifst Synagoga, er saurgar
Jacobs Sæng, þad er Ritningena, og missie þvi
bæde Kiennemannskapenn og Kongdomenn.

4. Hann rann lausslega burt sem Vatn. Þu skallt ecke vera ædstur, þviad þu foorst uppi þijns Fodurs Sæng, og saurgader mijna Sæng med þinne uppsør.

5. Þeir Brædur Simeon og Levi, þeirra Sverd eru Mordingia Vopn,

6. Mijn Saal skal ecke koma j þeirra raad og mijn Æra skal ecke vera j þeirra Samkundu, þvi þeir myrdtu Mannenn j sinne Reide, og med sijnum eigenn Vilia hafa þeir Uxann fordiarfad.

7. Bolvud verde þeirra Reide, þvi hun er so straung, og þeirra Grimd, ad hun er so hord. Eg vil skipta þeim j Jacob, og twijstra þeim j sundur medal Israel.

8. Juda, þu ert þann, þig skulu þijner Brædur prijsa, þijn Hond skal vera a þinna Ovina Haalse. Þier skulu Born þijns Fodurs lwta.

9. Juda er eitt ungt Leon, þu ert hoatt komenn, minn Son, fyrer stooranu Sigur, Hann kraup nidur, og lagde sig so sem Leon, og so sem Leon-jnna, Hvor vill uppreisa sig j moote honum?

10. Su Konunglega (b) Spijra skal ecke burt takast fra Juda, nie helldur Læremeistarinn fra hans Footum, fyrr enn Schilo kiemur, og til hans munu Þiodernar sier hallda.

(b) (Spijra) Hier biriast Blessun su er hlyder uppa Christum, sem fædast atte af Juda, og kallast hann Schilo, þad er Luckugiefenn, ja sier skyllde þreyngia j giegnum med Ærda og Trw, hvad adur var fyrer verkenu svort og vefallt, þvi kallast Schilo einn Kappe.

11. Hann mun binda sinn Fola vid Vijntried, og sinnar Asnajnnu son, vid þann edla Vijnkvistenn. Hann mun þvo sinn Klædnad j Vijne, og sinn Mottul j Vijnberia Bloode.

12. Hans Augu eru raudare enn Vijn, og hans tennur hvijtare enn Miolk.

13. Sebulon skal bwa hiaa Hofnenne vid Sioenn, og þar sem Skipalagenn eru, og hans Landamerke naa ad Zidon.

14. Isaschar skal vera einn Bein-Asne, og hann skal leggia sig a mille Landamerkianna

15. Og hann sea ad hvijldenn er good, og ad Landed er lystelegt, enn hann hefur beygt sijnar Herdar til byrdar, og er ordenn einn Skattgilldur þienare.

16. Dan skal vera Domare yfer sijnu Folke, so sem ein onnur Ættkvijsl i Israel.

17. Dan skal vera einn Hoggormur a Veige, og ein Nadra a Gotunne, bijtande j Hestsins Hæl, so ad sa ed rijdur falle a bak aptur.

18. DROTTinn! eg bijd epter þijnu Hiaalpræde.

19. Gad Herklæddur, skal færa strijds Herinn framm, og til Baka aptur.

20 Af Asser kiemur þad feita Braud, Og hann mun giora Kongunum til Vilia.

21. Nephthali er einn snar Hiortur, og giefur snillna Rædu.

22. (c) Joseph mun vaxa, hann mun vaxa so sem hiaa einum Uppsprettubrunne, Dæturnar ganga framm med Valldstiornenne.

(c) Josephs Blessan hlyder uppa Israels Konga Rijke, og er alltsamann sagt um verалldlegt Vellde, ad Dæturnar, þad er Staderner j Landenu, maude hafa goda Stiorn Tijmanlega; og hafa marga Spaamenn og ypparlega Menn til Hyrningar Steina, og þo opt være stiakad vid þeim, þa unnu þeir þo, og þetta Kongarijke var j Ephraims Kinkvisl, so bleif su andlega blessunenn, og Rijked, hia Juda, og þad lijkamlega Rijked hia Ephraim.

23. Og þo ad Skotmennerner reite hann til reide, og strijde jmote honum, og offsæke hann,

24. So verdur þo hans Boge fastur, og Armleggur hans Handa sterkur, fyrer hendur þess hins megtuga j Jacob. Af honum eru komner Hyrdarar og Steinar j Israel.

25. Af þijns Fodurs Gude ertu hoolpenn, og blessadur ert þu af þeim Allmaattuga, med Blessan af Himnum ofann, med Blessan af Underdiupenu, sem hier under liggur, med Blessan af Briostenu og Kvidnum.

26. Þijns Fodurs Blessaner eru sterkare, enn minna Forelldra Blessaner (epter Osk þeirra ypparlegu j Heimenum, og þær munu koma

koma yfer Josephs Hofud, og yfer Hvirfel a þeim Nazarenis a medal hans Brædra.

27. BenJamin (d) er einn glessande Ulfur, ad Morgne mun hann eta Herfoang, eñ ad Kvollde skal hann Herfoangenu wt skipta.

(d) BenJamins blessan hefur Kong Saul, og þeir Borgarar j Gibea fullkomnad, Judic. 20, 25.

II. 28. Þesser eru þeir tolf Kinþætter Israels, og þetta er þad sem þeirra Fader mællte vid þa, þa hann blessade þa, sierhvorn þeirra med einne sierlegre Blessan.

29. Og hann baud þeim og sagde til þeirra, Eg safnast til mijns Folks, grafed mig hioa mijnum Forfedrum, j þeirre Grof a Ephrons Hethiters Akre, j þeim twofallda Heller sem liggur giegnt Mamre j Lande Canaan, hvorn Abraham keypte med Akrenum af Ephron Hethita til Erfdagreptrunar.

30. Þar hafa þeir grafed Abraham, og hans Kvinnu Sara,

31. Þar hafa þeir og grafed Isaac og Rebeccu hans Kvinnu. Þar j sama Stad hef eg og so grafed Lea, j þeim Akre og j þeim Heller sem keyptur var af Heths Bornum.

32. Þa Jacob hafde endad þessar Skipaner, til sinna Barna, lagde hann sijnar Fætur tilsamans j Sængenne, og uppgaf sijna Ond, og vard safnadur til sijns Folks.

[Jacob andast þa hann var 147 Aara: 2255 arum epter Heimsins Upphaf, 1706 Aarum fyrer Christi Fæding.]

1. Þa fiell Joseph yfer sijns Fodurs Andlit, og griet yfer honum, og mynntist vid hann.

## L. Capitule.

(I) Jacob er Jardadur; (II) Joseph andast.

I. 2. Og Joseph baud sijnum Þienorum, sem voru Læknarar, ad smyria sinn Fodur.

3. Og Læknararner smurdu Israel j Fiorutijgu Daga, þviad so leinge stoodu yfer Smurnings Dagarner, og Egyptsker Menn grietu hann j Siotijger Daga.

4. Enn sem Sorgar Dagarner voru nu endader, þa talade Joseph vid Pharaonis Þienara, og sagde, Hafe eg nu funded Naad hioa ydur, þa taled vid Pharaonem, og seigid,

5. Minn Fader took einn Eid af mier, og sagde, Sioa! eg andast, Jarda þu mig j minne eigenn Grof, hvoria eg liet grafa mier j Lande Canaan. Svo vil eg nu fara upp, og greftra minn Fodur, og koma aptur.

6. Pharao svarade, Far þu upp og jarda þu þinn Fodur, so sem þu hefur svared honum.

7. So for Joseph upp, ad greftra sinn Fodur, og aller Pharaonis Þienarar, og aller enu Ellstu af hans Huse, og aller enu Ellstu af Egyptalande fooru med honum.

8. Þar ad auk aller af Josephs Hwse, og hans Brædur, hans Fodurs Folk, alleina sijn Born, Saude og Fienad lietu þeir epter verda j Lande Gosen.

9. Þar voru og j ferd med honum Vagnar, og Reidmenn, so ad þetta vard einn stoormikell Her.

10. Enn er þeir komu nu til þeirrar Gyrdingar Atad, sem liggur hinumeigenn Jordanar, þar hofdu þeir einn miog stoorann og bitrann Harm, og hann sorgade yfer sijnum Fodur j Sio Daga.

11. Og sem Folked Landsins, þeir Cananei soau þann Groat hioa þeirre Hlodu Atad, þa sogdu þeir, þeir Egyptsker hafa þar storann Harm. Þar fyrer kallast sa same Stadur, sem liggur hinumeigenn Jordanar, Egyptskra Harmur.

12. Og hans Born giordu so sem hann hafde boded þeim,

13. Og fluttu hann j Land Canaan, og Jordudu hann j þeim twofallda Heller þess Akurs sem Abraham hafde keypt med þeim Akre, til Erfda-Greptrunar af Ephron Hethiter, þvert yfer fra Mamre.

14. Og sem þeir hofdu nu Jardad hann, þa foor Joseph tilbaka aptur j Egyptaland, med sijnum Brædrum, og med ollum þeim sem voru farner upp med honum, til ad jarda hans Fodur.

15. Enn Josephs Brædur urdu hrædder, þa þeirra Fader var andadur, og sogdu, skie moa ad Joseph sie reidur vid oss, og endurgialldi oss allt þad jllt, sem vier hofum giort honum.

16. Par fyrer lietu þeir seigia honum so, þinn Fader baud oss, adur enn hann andadest, og sagde,

17. So skulud þier seigia til Josephs, Fyrerlaattu þijnum Brædrum þeirra Misgiørning og þeirra Synd, ad þeir hafa giort þier so jllt. Nu bidium vier, ad þu fyrergiefer oss þijns Fodurs GUds Pienurum þann Misgiorning. Þa griet Joseph, er þeir toludu þetta vid hann.

18. Og hans Brædur geingu til hans, og fiellu nidur fyrer honum og sogdu, sioa, vier erum þijner Pionar.

19. Joseph sagde til þeirra, Hrædest ecke, þvi eg er under GUde.

20. Pier hugsudud ad giora mier jllt, enn GUd þeinkte ad giora þad ad goodu, j þvi hann giorde, so sem nu kloarlega frammkiemur, ad hallda morgu Folke vid Lijfed.

21. So vered nu ohrædder, eg vil forsorga ydur, og ydar Born. Og hann hugsgade þa, og talade blijdlega til þeirra.

II. 22. Og Joseph bioo j Egyptalande, med sijns Fodurs Hwse, og hann lifde Hundrad og Tiju oar,

23. Og sa Ephraims Born, allt til þridia Lids. Lijka eirnen Born Machirs, Sonar Manasses, fæddu og so Børn a Josephs Skaut.

24. Og * Joseph sagde til sinna Brædra, eg andast, og GUd mun vitia ydar, og færa ydur af þessu Lande, inn j þad Land sem hann hefur svared Abraham, Isaac og Jacob. * Ebr. 11, 22.

25. Þar fyrer tok hann einn Eid af Israels Sonum, og sagde, þegar GUd vitiar ydar, þa flytied mijn Bein j burtu hiedann.

26. Og Joseph andadest, þa hann var Hundrad og Tiju oara gamall, og þeir smurdu hann, og logdu hann j eina Kistu j Egypta Lande.

Endet þeirrar Firstu Moses Bokar.

# Exodus.

# Aunnur Bok Moses.

## I. Capitule.

(I) Þrældomur Israels Barna, og (II) Anaud i Egyptalande.

I. Þesse eru Nofn Israelis Barna, sem komu j Egyptaland med Jacob, hvor med sitt Hwss.

2. Ruben, Simeon, Levi, Juda,

3. Isaschar, Sebulon, BenJamin,

4. Dan, Nephthali, Gad, Asser.

5. Og allar Soaler sem voru komnar af Jacobs Lendum, þær voru siotijger. Enn Joseph var adur fyrer j Egyptalande.

6. Sem Joseph var nu andadur, og aller hans Brædur, og þeir aller sem lifad hofdu a þeim tijma,

7. * Pa fiolgade Israels Born, og þau gatu Born og jukust, og urdu miog morg, so ad Landed vard fullt af þeim.

* Giornb: Post: 7, 17.

8 So kom nyr Kongur j Egyptaland, hann visse eingenn deile a Joseph.

9. Og hann sagde til sijns Folks, Sioaed, Lydur Israels Barna er margur, og fleyre enn vier,

10. Nu vel, vier vilium kiesia þa nidur med

med Kiænsku, so ad þeir verde ei so marger. Hviad, ef ofridur gioreſt, þa meiga þeir hlaupa j Lid med Ovinum vorum, og beriaſt j moote oſs, og fara ſo j burt af Landenu.

11. Og þar voru ſetter hørduger Verkſtiorar yfer þa, þeir ed þa ſkyllde þvijnga med þungum Prældome, Hviad Menn voru þa ad byggia Pharaoni Borgernar Pithon og Raemſes ad leggia jnn j hans jnntekter.

12. Enn þeſs meir ſem þeir Plaagudu Folked, þeſs meir fiolgade þad og margfalldadeſt, Og þeir hielldu Iſraels Born andſtyggeleg.

13. Og þeir Egyptſku þioadu Iſraels Born omiſkunſamlega, med Prældome.

14. Og giordu þeim þeirra Lijf leidennlegt, med þungu Arfide, Leirelltu og Tigulſteina giord, og allra handa Prældome a Mørkenne, og med allra handa Erfide, ſem þeir løgdu omiſkunſamlega a þa.

II. 15. Og Kongurenn j Egyptalande mællte til þeirra Ebreſku Yferſetukvenna, ein hiet Sephora, enn onnur Phua,

16. Nær þier ſitied yfer þeim Ebreſku Kvinnum, og þier ſiaed a Fædingar ſtolnum ad þad er einn Sonur, þa lijflaated hann, Enn ſie þad Dotter, þa laated hana lifa.

17. Enn Yferſetukonurnar ottuduſt Gud, og giordu ecke ſo ſem Egyptalands Kongur hafde þeim boded, helldur lietu Bornenn lifa.

18. Þa kallade Egyptalands-Kongur Yferſetukonurnar fyrer ſig, og ſagde til þeirra, Hvi giored þid þad, ad þid laated Bornen lifa?

19. Loſmædurnar ſvorudu Pharaoni, Þær Ebreſku Konurnar eru ecke ſo ſem þær Egypſku, þvi þær eru hrauſtar Konur, og adur enn þad Yferſetukonurnar koma til þeirra, þa eru þær buonar ad fæda.

20. Þar fyrer giorde Gud Yferſetukonunum gott. Og Folked jookſt og vard miog margt.

21. Og ſokum þeſs, ad Yferſetukonurnar ottuduſt Gud, þa biggde hann þeim Hwns.

22. Þa baud Pharao ollu ſijnu Folke, og ſagde, Kaſted ollum Sveinbornum j Ana ſem ad fædaſt, og laated oll Meyborn lifa.

## II. Capitule.

(I) Um Fæding Moſis; (II) hans Upfoſtur; (III) Flotte; og (IV) Gipting.

I. Eirn Madur af Hwſe Levi, gieck burt og tok eina af Levi Dætrum, Og Kvinnann vard Oliett, og fædde * eirn (a) Son.
* Eb: Poſt: 7, 20.

(a) Moſes fædeſt 64 aarum epter Andlaat Joſephs, Anno Mundi 2372. Fyrer Chriſti Hingad-Burd 1588 Aar, af Levi Ætt.

2. Og * ſem hun ſaa ad þad var eitt vænt Barn, geymde hun hann j þria Maanude.
* Ebr. 11, 23.

3. Enn þa hun gat eige leingur leyndt honum, giorde hun Kiſtelkorn af Reyr, og brædde med Leir og Bike, og lagde þar j Barned, og liet Kiſtelenn j Sefed wt med aarbackanum.

4. Enn hans Syſter ſtood langt fra, ad hun mætte ſiaa hvornenn honum munde ganga.

II. 5. Og Pharaonis Dotter gieck ofann, ad þvo ſig j aanne, og hennar Jungfrur geingu epter aarbackanum. Enn ſem hun ſaa Kiſtelinn j Sefenu, ſende hun ſijnar Amboatter þangad, og liet færa ſier hann.

6. Og er hun lauk honum upp ſaa hun Barned, og ſiaa, Barned griet, þa ſaa hun aumur a þvi og ſagde, Þad er eitt af þeim Ebreſku bornonum.

7. Þa ſagde hans Syſter til Pharaonis Dottur, Villtu od eg fare j burt, og kalle eina af þeim Ebreſku Kvinnum, ſem hefur miolk j Brioſtum, ad hun kunne ad fæda Barned upp?

8. Pharaonis Dotter ſagde til hennar, Far þu. Jungfruenn foor af ſtad, og kallade a Modur Barnſins.

9. Þa ſagde Pharaonis Dotter til hennar, tak þetta Barn til þin, og foſtra mier

þad upp, eg mun launa þier. Kvinnann tok Barned, og fostrade þad upp.

10. Og þa Sveirnenn var vaxenn, leidde hun hann til Pharaonis Dottur, og hun hiellt hann fyrer sinn Son, og kallade hann Moses, þvi hun sagde, Eg hefe teked hann wr Vatne (b).

(b) Masa, merker ad draga, þar af kemur Moses, dreigenn, þvi hann var dreigenn wr Vatnenu.

III. 11. Og a þeim tijma, þa Moses var fulltijda, gieck hann wt til sinna Brædra, og sa þeirra þiaaning, Og hann sa einn Egyptskann liosta hans Brodur, sem var einn af þeim Ebresku.

[ Moses var þa 40 aara gamall.]

12. Pa litadest Moses allt um kring, og er hann sa ongvann Mann j nand, vo hann þann hinn Egyptska, og grof hann j Sande.

13. Enn a ödrum Deige gieck hann wt aptur, og sa tvo Ebreska Menn þraatta sijn a mille, og hann sagde til hans sem oriett giorde, Þvi slær þu þinn Naunga?

14. Enn hann sagde, hvor hefur sett þig til Hofdingia edur Domara yfer oss, villtu vega mig, sem þu drapst þann Egyptska? Pa vard Moses hræddur, og sagde, hvornenn er þad orded opennbert?

15. Og þad kom fyrer Pharaonem, og hann leitade epter ad laata drepa Mosen, Enn Moses flyde fyrer Pharaone, og hiellt sig j þvi Lande Madian, og dvaldest hiaa einum Brunne.

IV. 16. Og þar var einn Kiennemadur j Madian, hann aatte sio Dætur, þær komu þangad ad ausa upp Vatn, og fylltu Vatnsrennurnar, at vatna þeirra Fodurs Saudum,

17. Pa komu Hyrdararner ad, og raaku þær j burt. Enn Moses reis upp, og hiaalpade þeim, og vatnade þeirra Saudum.

18. Og þa þær komu heim til sijns Fodurs Reguel, sagde hann, Þvi komud þier so snart aptur j Dag?

19. Þær sogdu, Einn Egyptskur Madur hiaalpade oss fra Fiarhyrdurunum, og joos Vatned upp fyrer oss, og Vatnade Saudunum.

20. Hann sagde til sinna Dætra, Hvar er sa Madur? Þvi lietu þier hann fara j burt, og budud honum ecke jnn ad eta med oss?

21. Og Moses liet sier lijka ad vera hiaa þeim Manne, og hann gaf Mose sijna Dottur Zephora.

22. Hun fædde honum einn Son, þann kallade hann Gersom, þvi ad hann sagde, Eg er ordenn einn Utlendingur j annarlegu Lande. Og hun ool enn einn Son, þann nefnde hann Elieser, (c) og sagde, Mijns Fodurs Gud er minn Hiaalpare, og hann frelste mig af Hende Pharaonis.

(c) Gersom þydest utlendingur. Elieser þydest GUd minn Hiaalpare.

23. Enn laungum tijma þar epter, andadest Kongurenn af Egyptalande. Og Israels Born andvorpudu under þeirra Anaud, og kolludu, Og þeirra kall yfer þeirra Þiaaning, kom upp fyrer Gud.

24. Og Gud heyrde þeirra saarlega kveinan, og minntest a sinn Saattmaala (sem hann hafde giort) vid Abraham, Isaac og Jacob,

25. Og hann leit til þeirra, og tok þa ad sier.

## III. Capitule.

Moses er kalladur af Gude til ad leida Israels Born ut af Egyptalande.

Og Moses giætte Sauda Jethro Maags sijns, Kiennemanns j Madian, og rak Fied a bak vid j Eydemorkenne, og kom til Guds Fialls Horeb.

2. Og * Eingell DRottins birtist honum, j einum gloande Ellds Loga, af einum Runne, Og hann sa ad Runnurenn logade af Ellde, enn eyddest þo ecke. *Gb: Post. 7,30.

3. Pa mællte hann, Eg vil fara þangad, ad sia Syn þa hina miklu, hvar fyrer Runnurinn brennur ecke upp.

4. Og sem DRottinn sa ad hann gieck þangad, ad skoda, þa kallade Gud til hans wr Runnenum, og sagde, Moses, Moses! Hann svarade, Hier er eg.

5. Hann sagde, gack ecke nær hingad; Leystu

þijna Skoo af þijnum Footum, þvi sa stadur sem þu stendur a er heilög Jord. Og hann sagde framar meir.

6. Eg er þijns Fodurs Gud, * Gud Abrahams, Gud Isaacs, og Gud Jacobs. Moses byrgde sitt Andlit, þvi hann þorde ecke ad lijta uppa Gud. * Matth. 22, 32. Marc. 12, 26. Luc. 20, 37.

7. Þa sagde DRottinn, Eg hefe (a) sied Eymd mijns Folks j Egyptalande, og heyrt þeirra kall under þeim sem þa þrælka, Og eg veit þeirra Harm,

(a. (Eg hefe sied) Gud helldur-þad hann hefur heited, og bænheyrer sijna.

8 Og eg er nu ofann farenn, ad frija þa af Hende Egyptskra, og utleida þa af þvi Lande, j eitt gott og vijdt Land, og j þad Land, sem flytur j Miolk og Hunang, j þad Plats þar nu bwa Cananitar, Hethitar, Amoritar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar.

9. Þviad Israels Barna kall er nu komed fyrer mig, og eg hefe sied þeirra Þrældom, med hvorium ad Egyptarner þreyngia þeim.

10. So far nu þangad, Eg vil senda þig til Pharaonem, ad þu utleider mitt Folk, Israels born, af Egyptalande.

11. Moses sagde til Guds, Hvor em eg, ad eg fare til fundar vid Pharaonem, og leide vt Israels born af Egyptalande?

12. Hann sagde, Eg vil vera med þier. Og þetta skalltu hafa til marks, ad eg sende þig, þa þu hefur leidt mitt Folk af Egyptalande, þa munud þier færa Gude Forner a þessu Fialle.

13. Moses sagde til Guds, Sioa, þegar eg kiem til Israels barna, og eg seige til þeirra, Gud Fedra ydra sende mig til ydar, Og ef þeir seigia þa til mijn. Hvort er hans Nafn? Hvoriu skal eg þa svara?

14. GUd sagde til Mosen, Eg mun vera, sa sem Eg mun vera. Og sagde so, So skalltu seigia til Israels Barna, Eg mun vera, Hann sende mig til ydar.

15. Og GUd sagde frammveigis til Mosen, so skalltu seigia til Israels Barna, DROTtinn ydra Fedra GUd, GUd Abrahams, GUd Isaacs, og GUd Jacobs sende mig til ydar. Þetta er mitt Nafn ad eylijfu, þar med skulu Menn nefna mig um allder og ad eylijfu.

16. Þar fyrer Far nu þangad, og safna samann Olldungum Israels, og mæl vid þa, DROTTinn GUd ydra Fedra, GUd Abrahams, GUd Isaacs, og GUd Jacobs birtest mier, og sagde, Eg hefe vitiad ydar, og sied hef eg þad ydur hefur skied j Egyptalande.

17. Og eg hefe sagt, Eg vil vtleida ydur af Egyptalands Anaud, inn j Land þeirra Cananita, Hethita, Amorita, Pheresita, Hevita og Jebusita, j þad Land þar Miolk og Hunangang flytur j.

18. Og þegar þeir heyra þijna Raust, þa skalltu, og þeir Ellstu af Israel, fara inn fyrer Egyptalands Kong, og seigia so til hans, DROTtinn GUd Ebreskra Manna hefur kallad oss. So lat oss nu fara þriggia Daga leid a Eydemork, ad vier særum forner DROTTni GUde vorum.

19. Enn eg veit, ad Egyptalands Kongur mun ecke lata ydur fara, utann fyrer eina stirkva Hond.

20. Þvi eg mun vtrietta mijna Hond, og liosta Egyptaland, med allra-handa Stoormerkium, þeim er eg vil giora þar inne, sijdann mun hann lata ydur fara.

21. Og eg vil giefa þessu Folke Naad, hia þeim Egyptsku, ad þier skulud ecke fara snauder fra þeim, þa þier fared af Landenu. Helldur skal hvor Kvinna fa til lans af sinne Grannkonu, og af þeirre sem hun er j Hwse med, Silfurkier, Gullkier, og Klædnad, þad skulud þier leggia uppa ydra Sonu og Dætur, og ræna þvi fra Egyptskum.

IV. Ca-

# IV. Capitule.

Moses verdur Stadfestur i sinne Kollun med þeirre Gaafu ad giora Teakn og Furduverk.

Moses svarade, og sagde, Sioa, Ecke munu þeir trua mier, nie helldur hlyda minne Raust, helldur munu þeir seigia, GUD hefur ecke vitrast þier.

2. Þa sagde DROTTINN til hans, Hvad er þad sem þu hefur j þinne Hende? Hann sagde, Stafur er þad.

3. Hann sagde, kasta þu honum fra þier a Jordena. Og hann kastade honum fra sier, þa vard hann ad einum Hoggorme. Og Moses flyde undann honum.

4. Þa sagde DROTTinn til hans, wtriettu þijna Hond og griip um hans Hala. So riette hann wt Hendena og hiellt honum, og hann vard ad einum Staf aptur j hans Hende.

5. Þar fyrer munu þeir trwa ad Drottinn GUD þeirra Fedra, GUD Abrahams, GUD Isaacs, og GUD Jacobs hafe vitrast þier.

6. Og DROTTINN sagde enn aptur til hans, sticktu þinne Hende j Barm þier. Og hann liet hana j sinn Barm, og tok hana wt aptur, og sioa, hun var ordenn lijkþroa sem Snior.

7. Og hann sagde, sticktu henne j Barm þier aptur. Og hann stack henne aptur j Barmenn, og sioa, þa var hun ordenn aptur lijka sem annad hans Holld.

8. Sie þad nu so, ad þeir vilia ei trwa þier, nie heyra þijna Rodd vid þad eina Teikn, þa skulu þeir þo trwa þinne Roddu, vid þad annad Teikned.

9. Enn ef þeir trwa ecke þessum tveimur Jarteiknum, og hlyda ecke þinne Roddu, þa tak Vatn wr Anne, og aus þvi upp a þurrt Land, so skal þad Vatn, sem þu tokst wr Anne, verda ad Bloode a þurru Lande.

10. Þa sagde Moses til DROTTins, Æ DROTTinn minn! Eg hefe ecke hier til Dags hast gott ordfære, sijdann þu talader vid þinn Þienara, þvi eg hef þungt Maalfære, og þungfæra Tungu.

11. DROTTinn sagde til hans, Hvor hefur skapad Mannsins Munn? Eda hvor hefur giort hann Maallausa og Dausa, Siaanda eda hann Blinda? Hef eg Drottinn ecke giort þad?

12. So far nu hiedann, Eg vil vera med þijnum Munne, og kienna þier hvad þu skallt seigia.

13. Moses svarade, Minn DROTTinn, send þu hvorn þu villt senda.

14. Þa vard DROTTinn miog reidur Mose, og sagde, skyllde eg ecke vita, ad þinn Brodur Aaron af Levi slekte hann er Maalsnillenn? Og sioa, hann skal fara wt j mote þier, og nær hann sier þig, þa mun hann fagna j sijnu Hiarta.

15. Þu skallt tala til hans, og leggia Ordinn j hans Munn, og eg vil vera med þijnum og hans Munne, og læra yckur hvad þier skulud giora

16. Og hann skal tala vegna þijn til Folksins. Hann skal vera þinn Munnur, og þu munt vera hans GUD,

17. Og þennann Staf tak med þier, med hvorium þu skallt Jarteiknennar giora.

18. Moses gieck burt, og kom aptur til sijns Maags Jethro, og sagde til hans, Kiære, Leif mier ad fara, so eg meige koma til minna Brædra aptur, sem ad eru j Egyptalande, og sioa hvort þeir eru enn nu a Lijfe. Jethro svarade honum, Far þu j Fride.

19. Og DROTTinn sagde til hans j Madian, Far hiedann, og ferdast aptur j Egyptaland, þvi þeir eru dauder sem leitudu epter ad lijfloata þig.

20. Moses tok sijna Kvinnu, og sijna Sonu, og flutte þau a einum Asna, og foor aptur til Egyptalands, berande Guds Staf sier j hende.

21. Og DROTTINN sagde til Mose, sioa so til, nær þu kiemur aptur j Egyptaland,

land, ad þu giører allar þessar Jarteikner fyrer Pharaone, sem eg hefe giefed þier j þijna Hønd, enn eg vil herda hans Hiarta, so ad hann mun ecke lꜳta Folked laust.

22. Og þu skallt seigia til hans, So seiger DROTTinn, Israel er minn Frumgietenn Sonur.

23. Eg byd þier, ad þu lꜳter minn Son fara, so hann meige þiona mier, Enn vilier þu þad ecke, þa skal eg liosta j hel þinn Frumgietna Son.

24. Enn sem Moses kom til Herbergis nockurs a veigenum, kom DRottinn j mote hønum, og villde deyda hann.

25. Enn Zephora tok þa eirn stein, og umskar Yferhwdena a sijnum Syne, snart vid hans Fætur og sagde, Þu ert mier einn (a) Blodbrwdgume.

(a) (Blodbrwdgume) þad er ad skilia, hun reiddist og sagde, þad kostar blod ad þu ert minn madur, eg hlyt ad umskiera mitt Barn, hvad hun giørde naudug so sem adra Vanvirdu hiꜳ þeim heidnu, enn þetta merker Løgmꜳlsins Lyd, hvør ed giarnan vill hafa Gud, enn vill þo ei lijda Krossenn, ne lꜳta umskiera þann gamla Adam, þangad til þad hlytur ad skie.

26. Þa liet hann hann vera, Enn hun kallade Bloodbrwdguma, vegna Umskurnarennar.

27. Og DRottinn sagde til Arons, Far þu a Eydemørk til fundar vid Mosen. Og hann for af stad, og mætte hønum hiꜳ Guds Fialle, og kysste hann.

28. Og Moses sagde Arone øll Ord DRottins þess er hann sende, og allar þær Jarteikner sem hann baud hønum.

29. Þeir fooru burt og søfnudu samann øllum þeim enu Ellstu af Israels Børnum.

30. Og Aron talade øll þau Ord sem DROTTinn hafde mællt til Mosen, og giørde Jarteikner fyrer Folkenu.

31. Og Folked trwde. Og sem þeir heyrdu þad, ad DROTTINN hafde vitiad Israels Barna, og sied þeirra Eymd, fiellu þeir framm og tilbꜳdu hann.

# V. Capitule.

(I) Moses er einkis metinn af Pharao; og (II) Israels Børn plꜳgast en hardlegar.

I. EFpter þetta gieck Moses og Aaron jnn, og toludu vid Pharaonem, So seiger DROTTINN Israels GUD, Lꜳt þu minn Lyd fara burt og hallda mier eina Hꜳtijd a Eydemørku.

2. Pharao svarade, Hvør er sa DROTTINN hvørs Raust eg skule hlyda, og lꜳta Israel fara? Eige veit eg neitt af þeim Drottne, og ei læt eg Israel fara.

3. Þeir svorudu, GUd Ebreskra Manna hefur kallad oss, leyf oss nu ad fara þriggia Daga leid burt a Eydemørku, so vær meigum færa Foorner DROTTne vorum GUde, ad ei kome Drepsoott edur Sverd yfer oss.

4. Þa sagde Kongur Egyptalands til þeirra, þu Moses og Aaron, þvi vilied þid frija Folked fra sijnu Erfide? Fared aptur til ydars Erfidis.

II. 5. Og Pharao sagde eñ framar meir, Siꜳ, Folked er allareidu of-margt hier j Lande, og þo vilied þier nu ad þad skule giefa upp ad erfida.

6. Þar fyrer a þeim sama Deige, baud Pharao Fovitum og Verkstiornarmonnum (sem setter voru yfer Folked) og sagde,

7. Þier skulud ecke hier epter safna Hꜳlme handa þessu Folke, so sem þier hafed hier til giørt, til ad brenna Leirhellurnar þar vid, helldur lꜳted þa fara sialfa, og safna sier Strꜳum,

8. Enn lꜳted þa þo giora jafnmargar Leirhellur, sem þeir hafa giørt til þessa Dags, og minked þad ecke þar, þvi þeir ganga Idiulauser, þar fyrer kalla þeir, og seigia, vier vilium fara og færa Foorner vorum GUde.

9. Þrꜳed Folked med Erfide so ad þeir hafe noog ad giora, og giefe sig ecke ad Lyge-Ordum.

10. So geingu Fovitarner og Verkstiornarmenn Folksins wt, og søgdu til Folksins,

so seiger Pharao, eingenn Stroa skulu ydur giefast,

11. Fared sialfer og safned ydur Stroaum þar þier gieted fundid, enn þo skal það ecke par minuka ydart afvedid Arfide.

12. So dreifdest Lydurenn hingad og þangad vot um allt Egyptaland, ad leita sier Hoalmleggia, so þeir mætte hafa þa j Stadenn Stroasins.

13. Og Foditarner roaku epter þeim, og sogdu, Fullkomned ydart Dagsverk, so sem þier giordud fyrr, þa þier hofdud Stroaenn.

14. Og þeir Verkstiornarmenn sem Pharaons Hofdingiar hofdu sett yfer Israels Born, feingu slog, og þar var sagt til þeirra, Hvar fyrer hafed þier hvorke j Dag nie helldur j Giær giort ydart afvardad Dagsverk, so sem fyrr?

15. Pa geingu Verkstiorarner Israelis Barna jnn, og kolludu til Pharaonem og sogdu, þvi fer þu so med Pioua þijna?

16. Par er eckert Stroa giefed þijnum Pienorum, og skulum vier samt þo jafnmargar Leirhellur hnoda sem oss er fyrersett, og sioa, þar ofann a eru þijner Pienarar barder, og þinn Lydur hlytur ad vera (a) Syndarar.

(a) (Syndarar) það er, þitt vesæla Folk, hlytur ad liggia under Sokum so sem það giorde oriett, og þar er leitast vid, ad koma skulldu a þitt Folk.

17. Pharao svarade, þier ganged Idiulauser, Joa, Idiulauser ganged þier, og þvi seiged þier, vier vilium fara burt og færa Foorner DROTTNI.

18. Þvi fared nu j burt og þræled, eingenn Hoalmur skal ydur giefast. Enn oasett tal Tigulsteina skulud þier þo samt afhenda.

19. Pa soau Verkstiornarmenn Israelis Barna, ad það villde verda verr, þviad sagt var, þier skulud ecke mijnka ydart daglegt Verk a Tigulsteinunum.

20 Og þa þeir geingu vot fra Pharaone, mættu þeir Mose og Aarone, og þeir geingu til þeirra.

21. Og sogdu til þeirra, DROTTinn sioae ydur, og dæme um það, ad þier hafed giort oss so jlla lucktande fyrer Pharaone, og hans Pienurum, og hafed feinged þeim Sverded j Hendur, til ad drepa oss.

22. Og Moses kom til DROTTINS aptur, og sagde, DROTTINN, þvi giorer þu so jlla vid Folk þetta? Hvar fyrer sender þu mig hingad?

23. Þviad sijdann ad eg gieck first jnn fyrer Pharaonem, ad tala vid hann j þijnu Nafne, þa kvelur hann Lydenn meir enn aadur, og þu hefur ecke frelsad þitt Folk.

1. Pa sagde DROTTinn vid Mosen, nu skalltu sioa, hvad eg vil giora Pharaoni, þvi hann mun giefa þa lausa fyrer stirkva Hond, og med stirkre Hende mun hann þo burt reka þa vor sijnu Lande.

# VI. Capitule.

**Moses fær (I) eina nya Skickun af Gude; og (II) seger fra sinne Ætt.**

I. 2. GUD talade vid Mosen, og sagde til hans, Eg er DROTTinn,

3. Og eg vitradest Abraham, Isaac, og Jacob, ad eg villde vera þeirra Almaattugur GUD, enn mitt Nafn, DROTTINN, er ecke openberad fyrer þeim.

a) Ecke kunngiort, Patriarcharner hafa vel þeckt GUD, enn soddan opinber og almennelig predikun af Gude, var eun þa j þeirra Tijd ecke uppkomenn, so sem seirna skiede fyrer Mosen og Christum.

4. Eg hefe og so uppreist minn Saattmaala vid þa, ad eg vil giefa þeim Canaans Land, þeirra Utlendinga skapar Land, j hvoriu þeir hafa vered Utlendingar.

5. Lijka hef eg heyrt soara Kloguun Israels Barna, hvoria Egyptarner þvinga med þungum Prældome, og eg hefe minnst a minn Saattmaala.

6. Par fyrer seigdu so Israels Bornum, Eg er DROTTINN, og eg vil vtleida ydur fraa Prældome Egyptskra Manna, og frelsa ydur af ydar Pyngslum, og frija ydur med votriettum Armlegg, og stoorum Dome.

7. Og eg vil taka ydur mier til Lyds, og eg

vil vera ydar Gud, so ad þier skulud reyna, ad eg er DROTTINN ydar Gud, sem þat hefur leidt ydur fra Egyptskra Manna Prældome,

8. Og innfært ydur j þad Land, yfer hvert eg (b) upphoof mijna Hond, ad eg giæfe þad Abraham, Isaac og Jacob, þad vil eg giefa ydur til eignar, Eg DRottinn.

(b) (Upphoof) Eg hiet med Eide, ut supra. Gen. 22, 16.

9. Petta sagde Moses Israels Bornum, enn þau hlyddu honum ecke, fyrer andvarpan og Angist og þungu Erfide.

10. Pa talade DROTtinn vid Mosen, og sagde,

11. Far þu inn, og tala vid Pharaonem Egyptalands Kong, ad hann læte Israels Born fara af sijnu Lande.

12. Moses talade fyrer DROTtni, og sagde, Sioa, Israels Born hlyda mier ecke, hvornenn skyllde þaa Pharao hlyda mier? þar med er eg med (c) O-umskornum vorum.

(c) (Oumskornum,) þad er, oluæsiallur.

13. So talade DROTTINN vid Mosen og Aaron, og gaf þeim Bijfalning til Israels Barna, og til Pharaonem Kongsins j Egyptalande, ad þeir leiddu Israels Born, burt wr Egyptalande.

II. 14. Pesse eru Hofudenn j sierhvorre Ettkvijsl Fedranna. Born Rubens, þess Frumgietna Sonar Israel, eru þesse, Hanoch, Pallu, Hezron, Charmi, þesser eru Kinþætter komner af Ruben.

15. Simeons Born eru þesse, Jemuel, Jamin, Ohad, Jachin, Zohar og Saul Sonur þeirrar Canversku Kvinnu, þetta er Simeons Ettkvijsl.

16. Þesse eru Nofn Levi Barna, j þeirra Ettkvijsl, Gerson, Kahath og Merari. Enn Levi vard Hundrad Sis og Prijatijgu aara gamall.

17. Born Gersons eru þesse, Libni, og Simei med sijnum Ettkvijslum.

18. Pesse eru Kahats Born, Amram, Jezehar, Hebron, Usiel, og Kahat vard Hundrad þriatijgu og þriggia aara gamall.

19. Pesse eru Merari Born, Maheli og Musi, þesse eru komenn af Levi j þeirra Ettkvijsl.

20. Og Amram tok sijna Fodurs Syster Jochebed, sier til Eigennkvinnu, og hun gat vid honum Aaron og Mose. Enn Amram vard Hundrad Sis og þriatijgu aara gamall.

21. Pesse eru Jezeas Born, Korah, Nepheg, Sichri.

22. Usiels Born eru þesse, Misael, Elzaphan, Sithri.

23. Aaron aatte Eliseba Dottur Aminadabs, Systur Nahasons, og hun fædde honum Nadab, Abihu, Eleasar, Ithamar.

24. Koras Born eru þesse, Assir, Elkana, Abiassaph. Pad er su Korita ætt.

25. Enn Eleasar Aarons Son, hann tok af Putiels Dætrum sier Eigennkvinnu, hun fædde honum Pinehas. Pesse eru Hofudinn a medal Fedranna, Levitanna Ettkvijslar.

26. Petta eru þeir Aaron og Moses, til hvorra DROTTinn sagde, Færed Israels Sonu af Egyptalande, med þeirra Her.

27. Pesser eru þeir sem toludu vid Pharaonem Egyptalands Kong, ad þeir leidde Israels Sonu af Egyptalande, sem er Moses og Aaron.

28. Og aa sama Deige talade DROTtinn vid Mosen j Egyptalande,

29. Og sagde til hans, Eg er DROttinn, tala þu vid Pharao Egyptalands Kong allt þad sem eg tala vid þig.

30. Og hann svarade DROTTne, Sioa, Eg er med O-umskornum Vorum, hvornenn skal þa Pharao heyra mig?

## VII. Capitule.

Vatned verdur ad Blode.

Og DROTTinn sagde til Mosen, Sioa, Eg hefe sett þig til eins GUds yfer Pharaonem, og Aaron þinn Broder skal vera þinn Prophete.

2. Þu skallt tala allt þad eg byd þier, enn

Aaron þinn Broder skal tala þad fyrer Pharaone, ad hann laate Jsraels Born burt af sijnu Lande.

3. Enn eg vil forherda Pharaonis Hiarta, so ad eg giore mijn Teikn og Morg Stoormerke j Egyptalande.

4. Og Pharao mun ecke hlijda yckur, uppa þad eg audsyne mijna Hond j Egyptalande, og leide minn Her, mitt Folk Jsraels Born, af Egyptalande, med storum Dome.

5. Og þeir Egyptsku skula sioa ad vita, ad eg er DROTTJNN, nær eg nu vtrietta mijna Hond yfer Egyptaland, og leide Jsraelis Born burt fra þeim.

6. Moses og Aaron giordu so sem DRottinn hafde boded þeim.

7. Og Moses var Attatijgu aara gamall, og Aaron þriggia og aattatijgu aara gamall, þa þeir toludu vid Pharaonem.

8. Og DROTTinn sagde til Mosen og Aaron,

9. Þegar ad Pharao seiger til ydar, Syned ydar Teikn, þa skalltu seigia til Aarons, tak þinn Staf, og kasta honum framm fyrer Pharaonem, ad hann verde ad Hoggorme.

10. Þa geingu þeir Moses og Aaron jnn fyrer Pharaonem, og giordu so sem DRottinn hafde boded þeim. Og Aaron kastade sijnum Staf nidur fyrer Pharaone, og fyrer hans Þienorum, og hann vard ad einum Hoggorme.

11. Þa kallade Pharao a Spekingana og Galldramenn. Og þeir Egyptsku * Galldramenn giordu eirnenn so med sijnum Særingum, * 2 Tim. 3, 8.

12. Og hvor einn kastade sijnum Staf fra sier, og þar urdu af Hoggormar, enn Aarons Stafur gleypte þeirra Stafe.

13. So (a) forherdtist Pharaonis Hiarta, ad hann hlydde þeim ecke, so sem DRottinn hafde talad.

(a) (Forherdtest.) Gud kann hvorke, med Plaagum edur Furduverkum, nie med Heitingum, ad umsnua Pharaone, hann hlytur ad laata hann druckna j Sionum.

14. Og DROTTinn sagde til Moses, Pharaonis Hiarta er forherdt, ei vill hann leyfa Folkenu burt ad fara.

15. Far þu a Morgun a fund Pharaonis, Sioa, hann mun ganga hioa Vatnenu, so gack framm a mote honum a Arbackanum, og tak þann Staf j þijna Hond sem vard ad Hoggorme.

16. Og seig þu til hans, DROTTinn Gud Ebreskra Manna sende mig til þijn, og hann lætur seigia þier, laat mitt Folk fara, so ad þad þione mier a Eydemorku, enn þu hefur ecke viliad heyra til þessa.

17. Þar fyrer seiger DROTtinn so, þar af þa skalltu merkia ad eg er DROTtinn, Sioa, eg mun liosta a Vatned, sem er j Anne, þessum Staf, sem eg hefe j minne Hende, og þad skal verda ad Blode,

18. So ad Fiskarner j aanne skulu Deya, og Vatned skal jlla lyckta, so ad Egyptska skal velgia vid ad drecka af þvi.

19. Og DROTtinn mællte vid Mosen, Seig til Aarons, Tak þinn Staf, og riett þijna Hond vt yfer Votnenn j Egyptalande, og yfer alla þeirra Læke, Strauma og Stoduvotn, og yfer alla Vatnspytte, ad þeir verde ad Bloode, og þar skal vera Blood um allt Egyptaland, bæde j Triekierum og j Steinkierum.

20. Moses og Aaron giordu sem DRottinn hafde bodid þeim, og lyptu upp Stafnum, og liostudu a Vatned aarennar, ad asioaanda Pharaone og hans Þienorum. Og allt Vatnid aarennar umbreittest j Blood,

21. Og Fiskarner j Anne doou, og Votnenn lycktudu jlla, so ad Egyptsker Menn gaatu ecke drucked Vatned vr Anne, og þar vard Blood j ollu Egyptalande.

22. Og þeir Egyptsku Toframenn giordu og slijkt hid sama med sijnum Særingum. Og Pharaonis Hiarta forherdtist, so ad hann hlydde þeim ecke, so sem DROTtinn hafde talad.

23. Og

23. Og Pharao snere sier, og gieck heim, og liet sier ecke til Hiarta ganga.

24. Enn aller Egyptsker Menn groofu sier Brunna epter Vatne, kringum Ana, til at drecka, þvi þeir gaatu ecke drucked af þvi Vatne sem j aanne var.

25. Og so lidu Siø samfellder Dagar, ad DROTtinn slo Votninn.

# VIII. Capitule.

Pharao er straffadur (I) med Poddum; (II) med Lusum; og (III) med Ormum.

I. DRottinn sagde til Mose, Gack jnn fyrer Pharaonem, og seigdu til hans, So seiger DRottenn, Laat mitt Folk fara, so þad meige þiona mier.

2 Enn ef þu villt ecke giora þad, Sioa, þa vil eg plaaga þitt allt Land, fra þeim eina Landsenda og til annars, med Poddum,

3. So ad Fliotid skal vella upp Poddum, Og þær skulu skrijda upp, og koma j þitt Hws, j þitt Svefnherberge, j þijna Reckiu, og j Hws þinna Pionustu-manna a medal þijns Folks, og j þinn Bakstursofn, og j þitt Deig.

4 Og Poddurnar skulu skrijda uppa þig, og uppa þitt Foolk, og uppa alla þijna þienara.

5. Og DRottinn mællte vid Mosen, seig þu til Arons, Riettu þijna Hond wt med þijnum Staf, yfer Læke og Strauma og Stoduvotn, og laat Poddur koma yfer Egyptaland.

6. Og Aron riette wt sijna Hond yfer Votnenn j Egyptalande, Og þar komu upp Poddur, so ad huldest allt Egyptaland,

7. Og Toframennerner giordu slijkt hid sama med sijnum særingum, og lietu Poddur koma yfer Egyptaland.

8. Pa kallade Pharao a Mosen og Aron, og sagde, Bidied DRottenn fyrer mier, ad hann take þessar Poddur fra mier, og fra mijnu Folke, þa vil eg laata Folked fara, so þad meige færa Forner DRottne.

9. Moses sagde, Hafdu þa Æru fyrer mier, og kved a nær eg skule bidia fyrer þier, og fyrer þijnum Pienurum, og fyrer þijnu Folke, ad Poddurnar verde utreknar fra þier og þijnu Hwse, og blijfe alleinasta j rennande Votnum.

10. Hann sagde, A Morgun: Hann sagde, epter þvi sem þu hefur sagt, uppa þad ad þu skallt vita, ad þar er eingenn so sem DRottinn vor Gud.

11. So skulu Poddurnar takast fra þier, fra þijnu Hwse, og fra þijnum Pionustu Monnum, og fra þijnu Folke, og skulu alleinasta vera j rennande Votnum.

12. So geingu þeir Moses og Aron fra Pharaone, Og Moses kallade til DRottins, um Poddurnar, sem hann hafde lofad Pharaoni.

13. Og DRottinn giorde so sem Moses hafde sagt. So dou Poddurnar j Hwsunum, j Bæunum, og a Ökrunum,

14. Og þeir sofnudu þeim samann hier og hvar j storhrwgur, og Landed lycktade þar af.

15. Enn er Pharao saa ad honum var hvijld giefenn, þa vard hans Hiarta forherdt, og hann hlydde þeim ecke, so sem DRottinn hafde sagt.

II. 16. Og DRottinn mællte vid Mosen, Seig þu til Arons, Riettu þinn Staf wt, og liosta j Dupt Jardarennar, so þar verde Lys yfer allt Egyptaland.

17. Þeir giordu so. Og Aron wtriette sijna Hond med sijnum Staf, og sloo j Dupted a Jordunne, Og komu þegar Lys a Menn og Fienad, Allt Dupt j Landenu vard ad Lwsum, j ollu Egyptalande.

18. Toframennerner giordu eins lijka med þeirra særingum, ad þeir kiæme Lwsum upp, enn þeir gaatu ecke. Og Lysnar voru bæde a Monnonum og a Fienadenum.

19. Pa sogdu Toframennerner til Pharaonem, þetta er Guds Fingur. Og Pharaonis Hiarta vard forherdt, so ad hann hlydde þeim ecke, so sem DRottinn hafde sagt.

III. 20. Og DRottinn mællte vid Mosen, Stattu upp a Morgun snemma, og far til fundar vid Pharaonem, Sioa, hann mun ganga til Vatnsins, og seigdu so til hans, So seiger DRottinn', Lofadu Lyd mijnum ad fara, so hann meige þiona mier.

21. Enn ef þu giører þad ecke, Sioa, þa skal eg lœta koma allshœttada Jlla Orma yfer þig, þijna Þienara, þitt Folk, og þitt Hws, So ad øll Hws Egyptalands skulu fyllast af Ormum, so Akrarner og hvad sem a þeim er.

22. Enn a þeim Deige vil eg giøra sierlegann Hlut vid Land Gosen, þar sem mitt Folk er, ad þar skulu øngver Ormar vera: So ad þu viter, ad eg er DRottinn allstadar a Jordunne.

23. Og eg vil setia eina Frelsan a millum mijns Folks og þijns Lyds, A Morgun skal þad Takn ske.

24. Og DRottinn giorde so. Og þar kom fiølde Orma j Pharaonis Hws, j hans Þienara Hws, og so yfer allt Egyptaland, so ad Landed spilltest af Ormunum.

25. Pa liet Pharao kalla Mosen og Aron, og sagde, Fared og foornfæred ydar Gude hier j Lande.

26. Moses svarade, Ei ma so vera, ad vier giørum so. Þvi vier mundum þa j Foorner færa Egypskra Manna Andstyggder DRottne Gude vorum, Sioa, ef vier offrudum Egyptskra andstyggdum, fyrer þeirra Augum, Mundu þeir þa ecke lemia oss j Hel med Griote?

27. Vier vilium ganga þriggia Daga leid j burt hiedann a Eydemørk, og færa Foorner DRottni vorum Gude, so sem hann hefur boded oss.

28. Pa sagde Pharao, Eg vil Lœta ydur fara, so þier Fornfæred til DRottins ydars Guds a Eydemørku, þo med þvi mote, ad þier ferdest ei leingra j burt, og bidied fyrer mier.

29. Moses svarade, Sioa, þegar eg kiem wt fra þier, þa vil eg bidia DRottinn ad þesser Ormar skulu takast fra Pharaone og hans Þienurum, og hans Folke, a morgun, Enn pretta mig ecke optar, so þu lœter ecke Folked fara, og giøra DRottne Offur.

30. Og Moses gieck wt fra Pharaone, og bad til DRottins.

31. DRottinn veitte þad sem Moses bad, og took Ormana j burt fra Pharaone, fra hans Þienurum, fra hans Folke, so þar var ecke eirn epter.

32. Enn Pharao forherdte sitt Hiarta þa enn, og liet ecke Folked fara.

# IX. Capitule.

Egyptaland er straffad (I) med Drepsott; (II) med Svørtum Blødrum; og (III) med Hagle.

I. DRottinn mællte vid Mosen, Gack burt jnn fyrer Pharaonem og seigdu til hans, So seiger DRottinn Ebreskra Manna Gud, Leyfdu mijnu Folke ad fara og þiona mier.

2. Enn ef þu neitar ad lœta þa burt fara, og hamlar þeim frammveigis.

3. Sioa, þa skal Hond DRottins koma yfer þitt Fie a Mørkenne, yfer Hesta, yfer Asna, yfer Ulfallda, yfer Uxa, yfer Saude, med eirnre hardla þungre Drepsottu.

4. Og DRottinn mun giøra furdanlegann hlut, millum Jsraelis Hiardar og Egyptaranna. Og þar skal eckert deya af øllu þvi sem Jsraelis Børn eiga.

5. Og DRottinn sette tijmann til og sagde, A morgun mun DRottinn giøra þetta a Jordunne.

6. Og DRottinn giørde þad ad Morgne, ad allur Egyptalands Fienadur doo, enn þar do ecke eitt af Fie Jsraelis Barna.

7. Og Pharao sende þar epter, Og sioa, þa var þar eckert daudt af Jsraelis Fie. Enn Pharaonis Hiarta var forhardnad, so hann gaf ecke Folkenu burtfararleyfe.

II. 8. Pa mællte DRottinn vid Mosen og Aaron, taked yckar Hendur fullar med Øsku af

af Ofnenum, og Moses skal dreysa henne j Lopt upp fyrer Pharao,

9. Ad, þar falle Dupt yfer allt Egyptaland, og ad þar kome svartar Illsku Blodrur, bæde a Menn og Fienad, yfer allt Egyptaland,

10. Og þeir toku Oskuna af Ofnenum, og geingu fyrer Pharaonem. Og Moses dreifde Oskunne j Lopt upp, þa komu svartar Illsku-Blodrur, bæde a Menn og so Fienad,

11. So ad Töframennerner gaatu ecke staded fyrer Mose, sökum þeirra vondra Kauna, þviad þesse Illsku-kaun voru so vel a Galldramonnunum, so sem a ollum odrum Egyptskum Monnum.

12. Enn Drottinn forherdte Hiarta Pharaonis, so ad hann hlydde þeim ecke, so sem DRottinn hafde sagt Mose.

13. Pa mællte DRottinn vid Mosen, a Morgun snemma skalltu upp rijsa, og gack fyrer Pharaonem og seigdu til hans, so seiger DRottinn Ebreskra manna Gud, Laattu mitt Folk fara j burt, og þiona mier,

14. Ellegar vil eg j þessu sinne senda allar mijnar Plaagur yfer sialfann þig, yfer þijna Þiona, og yfer þitt Folk, so ad þu skallt sia ad vita, ad minn lijke er eingenn j ollum Londum.

15. Þviad eg vil vtrietta mijna Hond, og liosta þig, og þitt Folk med drepsott, so þu verder afmaadur af Jordunne.

16. Og * ad vijsu hef eg þar fyrer uppvaked þig, ad eg vil syna minn Krapt a þier, so ad vtberest mitt Nafn um alla verolld.

* Rom. 9, 17.

III. 17. Pu tredur enn nu mitt Folk under þier, og villt ei leysa þvi burt ad fara,

18. Sioa, Eg vil a Morgun j þetta mund laata rigna eitt ofred stort Hagl, so alldrei mun jafnstort komed hafa sijdan Egyptaland var first grundvallad, jnn til þessa dags.

19. Þvi send nu vt og tak j vakt þinn Fienad, og allt þad þu hefur a Akre. Þviad allt þad vte verdur stadt, og ecke er j Hws-
nn laated, Menn og Fienadur, þad mun drepast ef ad Hagled fellur yfer þa.

20. Hvor sem ottadest DRottins ord af Pharaonis Pienurum, hann liet sijna Pienara og sinn Fienad flya j hws.

21. Enn þeir sem ecke lietu DRottins ord falla sier til hiarta, þeir lietu þienara sijna og kvikfie vera a Akre.

22. Pa mællte DRottinn vid Mosen, Riett þijna hond upp j mote Himnenum, so ad Hagl drijse yfer allt Egyptaland, yfer Menn, yfer Fienad, og yfer allar Jurter a Morkenne j Egyptalande.

23. Og Moses uppriette sinn staf a mote Himnenum, og DRottinn liet þegar Reidarþrumur koma og Hagle rigna, so ad Ellde lyste nidur a Jordena. So liet DRottinn rigna Hagl yfer Egyptaland,

24. So ad Hagl og Elldur for so grimmlega til samans, ad soddann hafde alldrei fyrr skied j ollu Egyptalande, sijdann þad var first biggt.

25. Þetta Hagl slo nidur allt þad sem var a Akrenum, bæde Menn og Fienad, og Jurter Akursins, so ad brotnudu oll trie nidur a Morkenne j ollu Egyptalande,

26. Enn j Lande Gosen kom eckert Hagl þar sem Israels born biuggu.

27. Pa sende Pharao bod vt, og liet kalla til sijn Mosen og Aaron, og sagde til þeirra, Eg hefe enn nu ad þessu sinne syndgast, DRottinn er Riettlaatur, Enn eg og mitt Folk erum Ogudleger,

28. Bidied DRottinn, ad soddan Guds Hagle og Reidarþrumum linne, þa vil eg laata ydur burt fara, so ad þier skulud ecke vera hier leingur.

29. Moses sagde til hans, þegar eg fer vt af Borgenne, þa vil eg rietta mijnar Hendur upp til DRottins, þa mun linna bæde Hagle og Reidarþrumum, so þu skalt vita, ad Jordenn er DRottins.

30. Enn vel veit eg, ad þu og þijner Pienarar otteji ecke fyrer Gude sem er DRottinn.

31. So

31. So sloust nidur bæde Lijn=akrar og Bigg=akrar, þvi Bigged var vaxed til Axa, og Hørenn hafde Knappana feinged,

32. Enn Hveite og Rwgur var ecke nidur sleiged, þviad þau voru seint soad.

33. Moses gieck fra Pharaone vt af Stadnum, og upp riette sijnar Hendur til DRottins, So linnte Reidarþrumunum og Haglenu, og Regned draup ecke leingur a Jordena.

34. Og sem Pharao fornam, ad Regnenu, Reidarþrumunum, og Haglenu linnte, þa syndgadest hann enn meir, Og hann forherdte sitt Hiarta, hann og hans Þienarar.

35. So vard Pharaonis Hiarta forherdt, ad hann liet ecke Jsraels børn fara, so sem DRottinn sagde fyrer Mosen.

## X. Capitule.

Egyptaland verdur straffad (I) med Eingesprettum; (II) med Mirkre.

I. Og DRottinn mællte vid Mosen, Far jnn fyrer Pharaonem, þvi eg hefe forherdt hans Hiarta, og so hans Þienara, ad eg giore þesse mijn Takn a medal þeirra,

2. So þu meiger kunngiora þad fyrer Eyrum þinna Barna og Barna=barna, hvad eg hefe framkvæmt j Egyptalande, og hvornenn eg hafe audsyndt mijn Teikn a medal þeirra, Ad þier skulud vita ad eg er DRottinn.

3. So geingu nu Moses og Aaron fyrer Pharaonem, og sogdu til hans, So seiger DRottinn Ebreskra Manna Gud, Hvorsu leinge villtu standa j moote ad audmykia þig fyrer mier, lꝏt mitt Folk fara og þiona mier?

4. Enn vilier þu ecke lꝏta mitt Folk fara, Sioa, þa vil eg a Morgun lꝏta Eingesprettur koma allstadar,

5. So þær hylie Landed, so Menn skulu eige meiga sioa Jordena. Og þær skulu uppeta allt þad sem epter var og biargad vard fyrer Haglenu, og þær skulu eta øll ydar grænu trie a Mørkenne,

6. Og þær skulu uppfylla Hwos þijn, allra þinna Þienara Hwos, og allra Egyptskra Manna Hwos, So ad hvorke þijner Fedur nie Forfedur skulu soddann sied hafa, fra þeim tijma þeir fæddust a Jordena, og jnn til þessa Dags. Og hann snere sier j burt, og gieck vt fra Pharaone.

7. Þa sogdu Pharaonis Þienarar til hans, hvorsu leinge skulum vier vera hier med Plꝏgader? Lꝏt þetta Folk fara, so þad meige þiona DRottni sijnum Gude, Eda villtu ꝏdur so leinge reyna þetta, þar til ad Egyptaland er fordiarfad?

8. Og Moses og Aaron voru kallader til Baka aptur, jnn fyrer Pharaonem, þa sagde hann til þeirra. Farid af stad, og þioned DRottne ydrum Gude. Enn hvorier eru þeir sem burt skulu fara?

9. Moses sagde, Vier vilium fara med ungum og gømlum, med Sonum og Dætrum, Nautum og Saudum, þviad vier eigum ad hallda DRottne eina Hꝏtijd.

10. Þa sagde hann til þeirra, O, jꝏ, Sie so DRottinn med ydur, skyllda eg leyfa ydur og þar til ydar Børnum j burt ad fara? Sioed þar, hvort þier hafed ecke vondt j sinne?

11. Ecke so, Helldur þier Karlmenn, fared þier, og þioned DRottni, þviad þar um hafed þier beded. Og þeir voru vtreknir fra Pharaone.

12. Þa mællte DRottinn vid Mosen, Riettu þijna Hønd yfer Egyptaland, epter Eingesprettum, ad þær kome yfer Egyptaland og uppete allt Alldine j Landenu, med øllu þvi sem epter var undann Haglenu.

13. So riette Moses sinn staf yfer Egyptaland, Og DRottinn liet koma Austannvind allann þann Dag, og alla þa Nott uppa Landed, og ad Morgne færde þesse Austannvindur (a) Eingespretturnar framm.

(a) Eingesprettur nefnast hier ecke Hagab a Ebresku, so sem sumstadar verdur funded, helldur Arbe, sem eru ferfættar flingandi kindur, og hreinar ad eta, so sem Hagab. Levit. 11, 22. Enn þær eru oss okunnugar, utann þær eru ꝏþekt og Eingisprettur, Psal. 105, 34.

14. Og

14. Og þær komu yfer allt Egyptaland, og fiellu nidur j øllum œttum Egyptalands, ſo miøg margar, ad ſlijkt hafde þar alldrei fyrr ſkied, og ei helldur mun ſkie,

15. Þvi þær huldu Landed, og þad ſortnade af þeim, og þær upp œtu allt Gras j Landenu, og allann Avøgſt Trieanna, ſem ad ſtoodu epter Hagled, og þar var eckert grœnt epter a Trieanum, eda Graſenu a Akrenum, yfer allt Egyptaland.

16. Þa kallade Pharao Moſen og Aaron fliotlega til ſijn, og ſagde, eg hefe ſyndgaſt j moote DROTTne ydrum Gude, og ſo ydur,

17. Fyrerlaated mier mijn Misverk, lijka nu j þeſſu ſinne, og bidied DROTTenn ydar Gud, ad hann vilie nu ad eins taka þennann Dauda fra mier.

18. Hann gieck vt fra Pharaone, og bad til DROTTINS.

19 Þa ſnere DROTTINN Vindenum, til eins ſterks Veſtannvindar, hann upptok Engeſpretturnar, og kaſtade þeim j þad Rauda Haf, ſo þar var ecke ein epter neinſtadar j ollu Egyptalande.

20. Enn DRottenn forherdte Pharaonis Hiarta, ſo hann leyfde ecke Iſraelis Bornum burtu ad fara.

II. 21. Og DROttinn mællte vid Moſen, Riettu þijna Hond til Himens, ad þar verde ſo miked Mirkur j ollu Egyptalande, ad Menn meige þreyfa a þvi.

22. Og Moſes upriette ſijna Hond til Himins, þa vard þar ſo ſvart Mirkur j þria Daga, um allt Egyptaland,

23. Ad eingenn ſaa þar annann, og ei helldur ſtood nockur upp af þeim Stad, ſem hann var ſtaddur j þria Daga, enn hiaa ollum Iſraels Bornum, þar þau biuggu, var biart.

24. Þa kallade Pharao Moſen, og ſagde, Fared hiedann og þioned DROTTni, enn laated alleinaſta ydar Naut og Saude vera epter, ydar Born meiga fara med ydur.

25. Moſes ſagde, þu maatt og giefa oſs Offur, og Brenne-forn, ad giora DRottni Gude vorum.

26. Vort Kvikfie ſkal fara med oſs, og ecke verda ein Klauf epter, þvi vier munum taka af vorre eign, ſem þorf gioreſt til Drottins vors GUds Þionuſtu. Þvi vier vitum ecke, med hvoriu vier ſkulum þiona Drottni, fyrr enn vier komum til þeſs Stadar.

27. Enn DROTTINN forherdte Pharaonis Hiarta, ſo ad hann vellde ecke leyfa þeim burt ad fara.

28. Og Pharao ſagde til hans, Far fra mier, og varaſt ad koma hier epter fyrer mijn Augu, þviad a hvorium þeim Deige ſem þu kiemur j Augſyn mier, þa ſkalltu deya.

29. Moſes ſvarade, Sem þu mællter, eg vil ecke framar meir koma fyrer þijn Augu.

## XI. Capitule.

Iſraels Born faa Silfur- og Gull-ker ad laane hiaa þeim Egyptſku.

Og DROTTinn mællti vid Moſen, Eg vil enn nu laata eina Plaagu koma yfer Pharaonem og Egyptaland, epter þad mun hann leyfa ydur burt ad fara, og hann mun eck alleinaſta laata ydur fara, helldur mun hann reka ydur j burt.

2. Þar fyrer ſeig þu nu Folkenu, ad hvor karlmadur bidie ſinn Naabvoa, og hvor Kvinna ſijna Grannkonu um Silfurkier og Gullkier,

3. Þviad DROTTinn mun giefa Folkenu Naad fyrer Egyptſkum. Og Moſes var miøg (a) mikelshaattar Madur j Egyptalande, fyrer Pharaonis Þienurum og fyrer Folkenu.

(a) (Mikilshaattar Madur.) Þad ſeiger hann under þa Grein, ad furda er, hvorſu Moſes var ecke ſleigenn jhel af þeim Egyptſku, og mega þeir viſt hafa kvided fyrer miklu verra, og upphlaupe.

4. Og Moſes ſagde, ſo ſeiger DROTTinn, Um midia Nott vil eg ganga vt j Egyptalande,

5. Og aller Frumburder j Egyptalande ſkulu deya, fra Pharaonis Frumgietna Syne, ſem ſitur a hans Stoole, og til Frumgetins

 tins

tins Sonar Amboattarennar, ſem er ꝏ bak vid Kvornena, og allur Frumgetnadur Fiena darins.

6. Og þar ſkal koma eitt miked Op j ollu Egyptalande, hvors lijke alldrei hefur vered, og ei ſkal vera.

7. Enn a medal allra Jſraels Barna ſkal ecke einn Hundur geya, hvorke hioa Mønnum nie Fienade, ſo þier vited hvoria grein DROTtinn giorer a millum Egyptſkra Manna, og Jſraels.

8. Pa ſkulu aller þeſſer þijner Þienarar koma ofann til mijn, og falla nier til Foota, og ſeigia, Far þu burt, og allt þad Folk ſem þier er undergiefed, epter þad vil eg j burtu fara. Og hann gieck miog reidur burt fra Pharaone.

9. Og DROTtinn mællte vid Moſen, Pharao hlyder ydur ecke, uppa þad, ad morg Takn ſkule ſkie j Egyptalande.

10. Og Moſes og Aaron giorde øll þeſſe Takn fyrer Pharaone. Enn DROTTinn forherdte hans Hiarta, ſo ad hann villde ecke leyfa Jſraels Bornum burt ad fara af ſijnu Lande.

## XII. Capitule.

(I) Paſkalambed; (II) Aller Frumburder eru ſlegner jhel (III) Pharao ſkipar ad lꝏta Jſraels Lijd fara burt af Egyptalande.

I. DROTTJNN mællte vid Moſen og Aaron j Egyptalande, og ſagde,

2. Þeſſe Moanudur ſkal vera hinn firſte Manudur a medal ydar, og a honum ſkulud þier uppbyria Moanude ꝏrſins.

3. Taled til alls Almwgans af Jſrael, og ſeiged, a Tijunda Deige þeſſa Moanadar, ſkal hvor Hwsbonde taka eitt Lamb fyrer ſitt Hws, jꝏ eitt Lamb fyrer hvort Hws,

4. Enn ef þeir eru ecke ſo marger j Hwſe, ad þeir giete uppeted Lambid, þa ſkal hann taka ſinn nærſta Noagranna til ſijn, þar til ad þeir eru ſo marger, ad þeir giete upp eted Lambid.

5. Enn þier ſkulud taka þad Lamb ſem eingenn Lyte hefur, eitt Hrwtlamb, ꝏrs gamallt, þad ſkulud þier taka af Lombunum og Kidunum.

6. Og þad ſkulud þier geyma til Fiortanda Dags j þeim Moanude, og hvor hoopur j ollum Jſrael ſkal ſloatra þvi a millum tveggia ptna.

7. Og þeir ſkulu taka af Bloodenu, og rijda þvi a bꝏda Dyraſtafena, og a þad efſta Dyratried þeſs Husſins þar þeir eta þad jnne.

8. Og þa ſomu Noott ſkulud þier eta þad Kiot ſem ſteikt er vid Elld, og oſyrt Braud med beiſku Sallte.

9. Þier ſkulud ecke eta þad hroatt, og ecke ſoded j Vatne, helldur ſteikt vid Elld, med þeſs Hofde og Footum og Jnniſlum.

10. Ecke ſkulud þier leyfa nockud þaraf til Morguns, enn ef nockud geingur af til Morguns, þad ſkulud þier uppbrenna j Ellde.

11. Og ſo ſkulud þier þeſs neyta, þier ſkulud vera gyrder um Lendar ydar, og hafa Skoo a ydrum Footum, og Staf j ydrum Hondum, og þier ſkulud eta þad, ſo ſem þeir ed fliotlega Vilia ferdaſt, þvi þad er DROTtins Paſſah.

12. Þviad eg vil fara j giegnum Egyptaland, þeſſa ſomu Noott, og drepa allann Frumburd j Egyptalande, bæde a medal Manna og Fienadar. Og eg vil audſyna mijna Refſing a Ollum Skwrgodum Egyptſkra Manna, Eg ſem er DROTtinn.

13. Og þad Blood ſkal vera ydur til Teikns, a þeim Hwſum þar ſem þier jnne erud, ad þegar Eg ſie Bloodid, þa vil eg ganga fram hioa ydur, og þar ſkal eingenn Ploaga koma a ydur, ſem ydur fordiarfe, nær eg ſlæ Egyptaland.

14. Og þann Dag ſkulud þier hallda til Minningar, og hañ ſkulud þier hallda Drottni helgann, til eirnrar Hoatijdar, þier og aller ydrer Epterkomendur til æfiñlegrar Veniu.

15. Oſyrt Braud ſkulud þier eta j Sio Daga, ſem er, þann firſta Dag ſkal ecke vera ſyrt Braud j ydrum Hwſum. Hvor ſem etur ſwrt Braud, fra þeim firſta Deige, allt

allt til þess Siounda, hans Sal skal uppræ-
tast af Israel.

16. Sa Firste Dagur skal vera helgur, ad
þier (a) komed þa til samans, sa Siounde skal
og vera helgur ad þier komed þa til samans,
eckert erfide skulud þier fremia a þeim Dogum,
utann þad sem til matgiorda heyrer, hauda
allshꝏttudum Sꝏlum, þad meiged þier ad
eins giora fyrer ydur.

(a) (Komed til samans) þad er, þeir skylldu predika Benedicite, og lesa Gratias fyrer Passah, og Utlausn af Egyptalande, þar fyrer kiemur hann fram med þetta Ord, Kara, þad er ad predika edur lesa j Sofnudenum.

17. Og þier skulud hallda Osyrdra Brau-
da (Dag, þvi riett a þann sama Dag færda eg
ydar Her af Egyptalande, þar fyrer skulud
þier, og aller ydar Epterkomendur hallda
þennann Dag til eirurar æfinnlegrar Skicka-
nar.

18. Þann Fiortanda Dag j Mꝏnade-
num, ad Kvollde, skulud þier Osyrd Braud eta,
og til þess Tuttugasta og Firsta Dags j sama
Mꝏnude ad aptne.

19 So ad ecke finnest Syrd Braud j ydrum
Hwsum a þeim Sio Dogum. Þvi hvor
sem etur syrd Braud, hans Sal skal uppræ-
tast fra Israelis Samkundu, hvort hann er
helldur utlendur edur jnnbyggiare j Landenu.

20. Þar fyrer eted alldeilis eckert syrt
Braud, helldur eins-kostar osyrt Braud, j
ollum ydar hybylum.

21. Þa * kallade Moses alla þa ellstu af
Israel til samans, og sagde til þeirra, utve-
lied og taked Saude, sierhvor til sijns Heim-
kynnis, og slꝏtred (b) Passah,

* Ebr. 11, 18.

(b) (Passah) þyder gang, þviad DROTTENN gieck a þeirre Nott j giegnum Egyptaland, og slo all Frumburde jhel, enn þetta þyder Christi Dauda og Upprisu, fyrer hvorn hann gieck fra þessare Verolldu, og j sꝏmu gaungu slo jhel Syndena, Daudann og Dioslenn, og flutte oss burt af þvi rietta Egyptalande, til sijns Fodurs, þad er vort Passah edur Pꝏskar.

22. Og taked eitt Byndine med Ysop, og
dreped þvi j Blodeð, þad sem er j Munnlau-
genne, og rijded þvi framann a Dyratried,
og so og bꝏda Dyrastoolpana, og eingenn
Manneskia skal fara vt fyrer Dyrnar og sijnu
Hwse fyrr enn ad Morgne.

23. Þviad DROTTINN vill fara
umkring, og plaga þa Egyptsku. Og þar
hann sier Blodeð uppa Dyratrienu, og a bꝏ-
dum Dyrastoolpunum, þa mun hann ganga
framm hia þeim Dyrum, og lꝏta ecke For-
diarfarann koma j ydar Hws, ad plaga (y-
dur).

24. Þar fyrer hallt þessa Skickan, fyrer
þig, og þijn Born æfinnlega.

25. Og þegar þier komed j þad Land, sem
DROTTINN mun giefa ydur, so sem
hann hefur sagt, þa hallded þessa Þionustu.

26. Og þa ydar Born seigia til ydar, Hvad
er þetta fyrer Þionustu giord?

27. Þa skulud þier seigia, þad er DROt-
tins Pꝏska-Offur, sem gieck framm hia
Israelis Foolke j Egyptalande, þa hann plꝏ-
gade Egyptarana, enn frelsade vor Hws.
Þa hneigde Foolked sig, og giorde Lotning,

28. Og Israelis Born geingu j burt, og
giordu so sem DROTTINN hafde boded
Mose og Aaron.

II. 29. Og um Midnꝏttar Tijma, sloo
DROTtinn allann Frumburd j Egypta-
lande, fra Pharaonis Frumgietna Syne,
sem sat a hans Stoole, allt til Frumgietnings
þess hins fꝏngada sem sat j Myrkvastofu, og
allann Frumburd Fienadarins.

III. 30. Þa stood Pharao upp þa somu
Noott, og aller hans Þienarar, og aller E-
gyptsker, og þar giordest eitt miked Hroop j
Egyptalande, þviad þar var ecke eitt Hws,
ad ei være Daudur Madur jnne.

31. Og hann kallade a Mosen og Aaron
um Nottena, og sagde, Taked ydur upp, og
fared burt fra mijnu Folke, þier og Israels
Born, fared og þioned DROttni, lijka sem
þier hafed sagt.

 32. Ta-

32. Taked med ydur ydar Saude og Naut, so sem þier hafed talad. Fared af Stad og blessed mig lijka

33. Og þeir Egyptsku þreyngdu Folkenu, og roaku þad hastarlega af Landenu, þvi þeir sogdu, Vier munum aller deya.

34. Og Folked bar med sier hroatt Deig, sier til Fædslu, oadur enn þad gat svrnad, og bundu þad i sijnum Klædum, og boaru þad a Oxlum sier.

35. Og Israels Syner hofdu giort sem Moses sagde, og beded af Egyptskum um Silfurkier, og Gullkier, og Klæde.

36. DROTTINN hafde og giefed Folkenu Noad fyrer þeim Egyptsku, so ad þeir loanudu þeim þetta, og þeir giordu þa Egyptsku vidskila þar vid.

37. So ferdudust Israels Syner fra Rameses og til Suchoth, Sexhundrud þusund manna, Fotgongulids, ad auk Born,

[Þesse Reisa skiede epter Veraldarennar Upphaf 2453. arum, fyrer Christi Fæding, 1508.

38. Og margt annad Almwoga-folk sem ad filgde þeim, so og Sauder og Naut, og miøg miked Kvikfie.

39. Og þeir bokudu osyrdar Kokur, af þvi hroan Deige, sem þeir boaru af Egyptalande, þvi þad var ecke svrnad, sokum þess ad þeir voru so fliotlega rekner af Egyptalande, og moattu þar ecke leingur tefia, og þeir hofdu eckert annad tilbwoed sier til Nestis.

40. Israels Born hofdu þa * bwoed j Egyptalande Fiogurhundrud og þriatijgu oar.

* Giorn: B: Post: 7, 6.

41. Og þa þesse oar voru lidenn, þa gieck allur DROTtins her af Egyptalande, a einum Deige.

42. Þar fyrer hallda Menn DROTTni þa Noatt, þviad hann leidde þa af Egyptalande, þa Nott skulu Israelis Born DRottni hallda, þeir og þeirra Epterkomendur.

43. Og DROTtinn mællte vid Mosen og Aaron, þesse er vijsa Paskahallosins, eingenn Utlendingur skal eta þar af.

44. Enn sie þar nockur Þræll, sa sem keyptur er, loate hann sig umskiera, so ma hann eta þar af.

45. Eingenn Utlendingur, sa sem innleiksa er ordenn j Landenu, nie Verkseliare, skal eta þar af.

46. Menn skulu eta þad j einu Hwose, þier skulud eckert bera af Kietenu wt af Hwosenu, þier * skulud og eckert þess Bein j sundur briota. *Joh. 19, 36.

47. Oll Israelis Samkunda skal þetta so giora.

48. Sie þad so, ad þar bwe nockur Utlendingur hioa þier, og vilie hallda Herrans Poaska, þa skal hann umskiera allt Karlkins, og þa moa hann koma og giora þad. Og skal hann þa vera so sem einn annar Innlendur j Landenu, þviad einginn O-umskorenn skal eta þar af.

49. Þesse Log skulu eins vera fyrer þa sem, Odalborner eru j Landenu, so sem fyrer þa framande sem bwoa a medal ydar.

50. Og oll Israels Born giordu so sem DROTTINN hafe boded Mose og Aaron.

51. So leidde DROTTINN Israelis Born af Egyptalande a þeim sama Deige med þeirra Her.

## XIII. Capitule.

(I) Aller Frumburder skylldu helgast Drottne; (II) Utfør Israels Barna af Egyptalande.

I. Og DROTTINN mællte vid Mosen, og sagde.

2. * Helged mier allann Frumburd sem first opnar allshoattar Modurlijf, a medal Israels Barna, bæde af Monnum og Fienade, þviad þad heyrer mier til. *Luc. 2, 23.

3. Og Moses sagde til Folksins, Vered Minnuger þessa Dags, a hvorium þier geingud wt af Egyptalande, wr Prældomsins Hwose, ad DRottinn leidde ydur wt þadann med stirkre Hende, þar fyrer skalltu eckert a Swrdeig.

4. J Dag erud þier wtgeinger, j þeim Moanude (a) Abib.

(a) (Abib) er Aprilis.

5. Og nu þegar DROttinn hefur innleidt þig j Land þeirra Cananita, Hethita, Amorita, Hevita, Jebusita, hvort hann soor þijnum Forfedrum, ad giefa þier, þad Land sem Miolk og hungang flytur j, þa skalltu hallda þessa Þionustugiord, j þessum Moanude.

6. Sio Daga skalltu eta osyrt Braud; og a þeim Siounda Deige er DROttins Hoatijd.

7. Þar fyrer skalltu eta Osyrd Braud, j Sio Daga, so ad eckert Syrdeig nie syrt Braud siￗneſt hioa þier, j øllum þijnum Landsaalfum.

8. Og þier skulud seigia þetta fyrer ydrum Sonum, a þeim sama Deige, þetta holldum vier þessvegna sem DROttinn giørde oss, þa vier foorum af Egyptalande.

9. Þar fyrer skal þetta vera þier eitt Teikn j þinne Hende, og ein Minning fyrer þijnum Augum, so ad DROttins Løgmoal sie j þijnum Munne, ad DROttinn utleidde þig af Egyptalande, med einne stirkre Hond,

10. Þar fyrer halldeð þessa Skickan, a sijnum Tijma oarlega.

11. Og þa DROttinn hefur innleidt þig j Cananita Land, sem hann soor þier og þijnum Forfedrum, og þa hann hefur giefed þier þad,

12. Þa skalltu fraskilia DROttni til Handa allt þad sem opnar sinnar Modur Kvid, og þann firsta Frumburd af Fienadenum, sem Karlkins er.

13. Frumburd Asnans skalltu leysa med einum Saud, enn leyser þu hann ecke, þa briot hann vtr Hoalslidunum; Enn allann mannlegann Frumgietnad medal þinna Barna, þa skalltu leysa.

14. Og þa þitt Barn spyr þig ad j Dag eda a Morgun, Hvad er þad? Þa svara þu honum so, DROttinn leidde oss af Egyptalande, fra þui Þrældoms Huse, med eirnre stirkre Hende.

15. Þviad þa Pharao var forherdtur, til ad loata oss lausa, þa sloo DROttinn ihel alla Frumburde j Egyptalande, fra Mannanna Frumburde, og allt til Fienadarins Frumburdar. Þar fyrer offra eg DROttne allt þad sem first opnar sinnar Modur Kvid, þad sem er Karlkins, og eg leyse Frumburd minna Barna.

16. Og þetta skal vera þier eitt merke j þinne Hende, og til eirurar Minningar fyrer þijnum Augum, þad DROttinn hefur leidt oss af Egyptalande, med eirnre sterkre Hende.

II. 17. Sem Pharao hafde loated Folked burt fara, þa leidde GUD þa ecke a þann Veg, sem liggur j giegnum Landed Philistinorum, sem þeim var noalægastur, þvi GUD hugsade, Skie moa ad Folked meige jdrast, þa þad sier Bardagann, og snue sier um aptur j Egyptaland.

18. Þar fyrer leidde hann Folked j kring a þann Veg j giegnum Eydemorkena vt med (b) þvi Rauda Hafe. Og Israels Børn fooru Vopnud af Egyptalande.

(b) (Rauda haf) Grikker kalla þad þad Rauda haf, af þeim rauda Sande og grunne, sem þar er, enn þeir Ebresku kalla þad Sefs sio, vegna þess Sefs sem þar vegs.

19. Og Moses tok Josephs Bein vt med sier, þviad hann hafde teked einn Eyd þar uppa af Israels Børnum, og sagt, GUD mun vitia ydar, þvi færed mijn Bein burt med ydur.

20. So reistu þeir vt fra Suchoth og settu sijnar Herbuder j Etham, fremst j Eydemorkenne.

21. Og DROttinn gieck fyrer þeim a Deigenum j * einum Skijstolpa, og leidde þa riettleidis, og a Nottunne j einum Elldstolpa, og lyste þeim ad reisa bæde Dag og Nott. * 1 Cor. 10, 1.

22. Sa Skijstolpe veik ecke fra Folkenu a Deigenum, ei helldur Elldstolpenn a Nottunne.

## XIV. Capitule.

(I) Israels Born ferdast til Hafsins Rauda; (II) Hiner Egyptsku fyrerfarast i Hafenu.

I. Og DROTtinn mællte vid Mosen, og sagde.

2. Tala þu til Israels Barna, og seig þu þeim ad þeir snue aptur, og setie sijnar Herbuder hiaa þeim Dal Hiroth, sem ligur millum Migdol og Siaafarins, giegnt BaalZephon, og setie sijner Herbuder þar þvert yfer fra, hiaa Sionum.

3. Þvi Pharao mun seigia um Israels Born, þeir fara villt j Landenu, Eydemorkenn hefur jnnebyrgt þa.

4. Og eg vil forherda hans Hiarta, so ad hann skal eptersor veita þeim. Og eg vil vinna Prijs a Pharaone, og a allre hans Magt. Og Egyptsker skulu reyna ad eg er DROTTINN. Og þeir giordu so.

5. Og sem Kongur Egyptalands friette þad ad Folked var burt flued, þa umsneriſt Hiarta hans og hans Þienara, vid Folked, og sogdu, Þvi hofum vier þad giort, ad vier leyfdum Israel ad fara j burt, so ad þeir þione oss ecke?

6. Og hann liet spenna fyrer sijna Vagna, og tok sitt Folk med sier,

7. Hann tok Sexhundrud utvaldra Vagna, og hvad annad af Vognum var j Egyptalande, og Hershofdingiana yfer allann sinn Her.

8. Þvi DROTTinn herdte Pharaonis Hiarta, Kongsins af Egyptalande, so ad hann sookte epter Israels Bornum. Enn Israels Born voru utgeingenn med upprietre Hende.

9. So soktu nu þeir Egyptsku epter þeim, med Hestum, Vognum, og Riddaralide, og med allann Pharaonis Her, og naadu þeim vid hafed, þar sem þeir hofdu sett sijnar Herbuder, j Dalnum Hiroth, giegnt BaalZephon.

10. Og þa Pharao naalgadest þa, þa upphoofu Israels Born sijn Augu, og siaa, þa komu þeir Egyptsku, sækiande epter þeim. Og þeir ottudust hardla miog, og kolludu til DROTTins,

11. Og sogdu til Mosen, Voru þar ecke Grafer j Egyptalande, ad þu þurfter leida oss burt til þess ad deya hier j Eydemorku? Þvi giorder þu oss þetta, ad þu leidder oss af Egyptalande?

12. Er þad ecke þad sem vier sogdum til þijn, j Egyptalande, laat oss vera kirra, og þiona helldur Egyptskum, þviad betra er vær Þionum þeim, enn ad vier deyum j Eydemorku?

13. Þa sagde Moses til Lydsins, ottest ecke, standed stoduger, og siaaed Hvilijkt Frelse DROTTinn mun laata j Dag vid ydur framm koma. Þviad Egyptska Menn þessa sem þier siaaed j Dag, þa munud þier ecke siaa meir ad eylijfu.

14. DROTtinn mun beriast fyrer ydur, þier skulud vera kirrer.

15. DROttinn mællte vid Mosen, Þvi (a) Kallar þu til mijn? Seig þu til Israels Barna, þeir ferdest aframm.

(a) (Kallar þu) sierlegt dæme, hvorsu Truaann striJder, kveinar og hroopar j neyd og voda, og hvorsu hun helldur sig einungis til GUds Ords, og fær Huggun af GUde, og yfervinnur.

16. Enn upphef þu þinn Staf, og riett Hond þijna yfer Sioenn, og skiptu honum j sundur, so ad Israels Born meige gaanga þar j giegnum a þurru.

17. Siaa, Eg vil forherda Hiarta Egyptskra Manna, so ad þeir skulu fara epter ydur, so vil eg vinna Prijs a Pharaone, og a allre hans Magt, Vognum, og Riddaralide,

18. So ad Egyptsker skulu reyna, ad eg er DROTtinn, nær eg hefe unned Prijs a Pharaone, og hans Vognum, og Riddaralide.

19. Þa upptok sig GUds Eingell, sa sem gieck undann Israels Her, og hann foor tilbaka vid þa, og sa Skijstolpe tok sig og so fra þeirra Auglite, og gieck a bak vid þa,

20. Og kom j millum Herlids þeirra Egyptsku, og Israels Hers. Enn þad var eitt mirkt Skij upplysande Nottena, so þesser

og

og hiner kunnu ei ad komast til samans alla þa Nott.

II. 21. Nu sem Moses vtriette sijna Hond yfer Hafed, þa liet DROTTinn þad j burt hverfa fyrer einn sterkann Austann-Vind, alla þa Noott, og giorde Siooenn þurrann, og Vatned brast j sundur.

22. Og Israels Born * geingu jnn midt j Hafed a þurru. Og Vatned var þeim sem Mvvrveggur til hægre og vinstre Handar.

*1 Cor. 10, 1. Ebr. 11, 29.

23. Þeir Egyptsku soktu epter, og geingu jnn midt j Hafed epter þeim, aller Hestar Pharaonis, Vagnar hans, og Reidmenn.

24. Enn þa Morgunvakann kom, þa leit DROTTinn yfer Her Egyptskra, af Elldstolpanum og Skyenu, og skaut skielk j Herlid þeirra,

25. Og liet þeirra Vagna ganga af Hioolunum og kollkastade þeim hastarlega. Þa sogdu Egyptsker, Flyum fra Israel, Drottinn strijder fyrer þa mote Egyptskum.

26. Þa sagde DROTTinn vid Mosen, riettu vt þijna Hond yfer Hafid, so ad Vatned falle aptur yfer þa Egyptsku, yfer þeirra Vagna og Riddaralid.

27. So utriette Moses sijna Hond yfer Siooenn, og Siorenn fiell aptur j sinn Farveg, Adur enn dagade, og kom j moot þeim Egyptsku, þa þeir flydu. So steypte DROTTinn þeim midt j midiu hafe,

28. Og Vatned kom aptur, og hulde bæde Vagna og Riddara, og alla Pharaonis Magt, sem fared hafde epter þeim, j Hafed, so þar vard ecke einn epter af þeim.

29. Enn Israels Born geingu þurrum Fotum midt j giegnum Hafed, og Vatned stood þeim sem Mvvrveggur til hægre og vinstre Handar.

30. So leyste DROTTinn Israel a þeim Deige fra Egypskra Manna Hende. Og þeir sau þa Egyptsku liggia dauda j Fiorunne,

31. Og þa vollduga Hond sem DROTtinn hafde audsynt a þeim Egypsku. Og Folked oottadest DROTTinn, og trwde honum og hans Þion Mose.

# XV. Capitule.

(I) Lof-Saungur Mosis; (II) Þad Beiska Vatn Verdur Sætt.

I. Þa saung Moses og Israels Born Drottne þennann Lofsaung, og sogdu. Eg vil Lofsyngia DROTTni, þvi hann hefur giort eitt Dvvdsemdar Verk, Hestum og Vognum hefur hann j Hafid nidur steypt.

2. DROTTINN er minn Stirkur, og Lofsaungur, og hann er mitt Hiaalpræde, hann er minn GUD, hann vil eg prijsa, hann er mijns Fodurs GUD, hann vil eg upphefia.

3. DROTTINN er sa riette Strijdsmann, DROTTINN er hans heite,

4. Hann kastade Pharaonis Vognum, og hans Magt nidur j Hafid. Hans Utvalder Hofdingiar sucku j Hafenu Rauda,

5. Og Underdiwwped hulde þa, þeir sucku til Botns sem Steinar.

6. DROTTINN, þijn hægre Hond giorer miklar Dvvdsemder, DROTTinn, þijn hægre Hond sloo nidur Fiandmennena.

7. Þu kollvarpader þijnum Mootstodumonnum, med þinne mikellre Dyrd, þvi þa þu lietst lausa þijna Reide, þa fortærde hun þeim so sem Strvvum.

8. Þa þu bliest gaf Vatned sig upp, og Vatnsfollinn stoodu sem onnur Hrwga, og Underdiupinn velltu upp Vatnenu midt j Sioonum.

9. Ovinurenn hugsade, eg vil sækia epter þeim, og hondla þa, og skipta Herfoange, og sedia Reide mijna a þeim. Eg vil rickia missnu Sverde, og mijn Hond skal fordiarfa þa,

10. Þa lietstu þinn Vind blaasa, og Siooenn hulde þa, og þeir sucku nidur sem Bly j miklum Vatnsfollum.

11. DROTTINN, Hvor er þinn lijke a medal Gudanna? Hvor er þinn lijke, sem so er Maattugur, Heilagur, Hrædelegur, Loflegur, og so Dvvdsamlegur j sijnum Verkum sem þu?

12. Pa þu wtrietter þijna hægre Hond, þa gleipte Jordinn þa.

13. Pu hefur leidt þitt Folk med þinne Miskunsemd, sem þu hefur endurleyst, og hefur leidt þa med þijnum Stirk, til þijns Heilaga Bwstadar.

14. Pa Piodernar heyrdu þad, þa bifudust þær, og Angist kom yfer Philisteos.

15. Pa urdu hrædder Hofdingiar Edom, og þeir Volldugu j Moab skulfu, og aller Innbyggiarar j Canaan urdu Duglauser.

16. Laat hrædslu og otta falla yfer þa, fyrer þinn sterka Arm, ad þeir stirdne sem Steinar, þar til þitt Folk, DROTTINN, er framm hiaa komed, þar til þitt Folk er framm umkomed, þad sem þu hefur wtvegad.

17. Leid þa þarjnn, og groodur set þa, uppa þijnu Erfdafialle, sem þu DROttinn giorder þier til eins Heimelis, til þijns Helgedoms, DROTTINN, sem þijn Hond hefur tilreidt.

18. DROttinn mun Kongur vera, um allder og ad eylijfu.

19. Þvi Pharao droo jnn j Hafed med Hestum, Vognum, og Riddaralide, og DROTTinn liet Hafed falla aptur yfer þa. Enn Israels Born geingu a þurru, midt j giegnum Hafid.

20. Og Maria Spaakona, Syster Aarons, tok eina Bumbu j sijna Hond, og Kvinnurnar allar wt epter henni j Dans med Bumbum.

21. Og Maria saung fyrer þeim, Laatum oss Lof syngia DROTTNI, þvi hann hefur giort einn dyrdlegann Giorning, og nidurkastade Manne og Hesti j Hafid.

II. 22. Og Moses liet Israels Born ferdast burt fra Hafenu Rauda, til þeirrar Eydemerkur Sur, þar geingu þeir þria daga j Eydemorku, og fundu eckert Vatn.

23. Pa komu þeir til Mara, Enn þeir gaatu ecke drucked af Vatnenu j Mara, þvi þad var miog beiskt, þar fyrer kalla Menn þann stad Mara.

24. Pa moglade Folked mot Mose, og sagde, Hvad skulum vier drecka?

25. Enn hann kallade til DRottins, Og DRottinn vijsade honum til eins Tries, þvi kastade hann j Vatned, og Vatned vard sætt. Par sette hann þeim Log og Riett og freistade þeirra,

26. Og sagde, Ef ad þu hlyder Roddu DRottins Guds þijns, og giorer þad sem riett er fyrer honum, og ef þu lætur hans Bodord þier j Eyrum loda, og helldur allar hans Skickaner, þa vil eg ongvann af þeim Siukdomum leggia uppa þig, sem eg lagde a Egyptaland, Þviad eg er DRottinn þinn Grædare.

## XVI. Capitule.

(I) Vaktalar; (II) Himnabraud.

I. 27. Og þeir komu til Elim, þar voru tolf Vatnsbrunnar, og siotiju Paalmvidartrie, og þeir settu þar sijnar Herbuder hiaa Votnunum.

1. Sijdann fooru þeir fra Elim, og allur Mannfiolde Israels Barna, til þeirrar Eidemerkur Sin, sem liggur a millum Elim og Sinai, a fimmtanda Deige j þeim odrum Maanude, epter þad þeir voru burtfarner af Egyptalande.

2. Og allur Sofnudur Israels Barna moglade j mot Mose og Aaron, j Eydemorkenne,

3. Og sogdu, Gud giæfe vier hefdum Daaed, fyrer DRottins Hond, j Egyptalande, þa vier saatum þar yfer Kiotkotlum, og hofdum gnægd Brauds ad eta. Þvi þar fyrer hafed þier leidt oss wt a þessa Eydemork, ad þier villdud laata allann Almugann deya af sullte.

4. Pa mællte DRottinn vid Mosen, Siaa, eg vil laata rigna Braude af Himne til ydar, og Folked skal fara wt ad safna hvorn Dag, so miked sem þad þarf til Atvinnu a þeim Deige, so ad eg reyne, hvort þad geingur epter mijnum Bodordum, edur ecke.

5. Enn

5. Enn a Siøtta Deige skulu þeir bwa sig til ad safna twofalldt so miked þann Dag, sem þeir annars plogudu samann ad safna dagleg a.

6. Moses og Aaron sogdu til Israels Barna, j Kvolld skulud þier vita ad DROTTinn hefur wtleidt ydur af Egyptalande,

7. Og a Morgun skulud þier sioa DROTtins Dyrd, þviad hann hefur heyrt ydarn Kur j giegn DROTTNE. Hvad erum vid, ad þier mogled j giegn ockur?

8. Moses sagde framarmeir, DROTtinn skal giefa ydur Kiøt ad eta j Kvolld, enn noog Braud a Morgun, þviad DROTtinn hefur heyrt ydart Mogl, sem þier moglad hafed j giegn honum, þvi hvad erum vid? Þier mogled ecke j giegn ockur, helldur j giegn DROTTNE.

9. Og Moses sagde til Aarons, seig til Israels Barna Samkundu, Komed hier frammfyrer DROTTinn, þvi hann heyrde ydart Mogl.

10. Og sem Aaron talade þetta til allra Israels Barna Samkundu, þa snieru þeir sier j mote Eydemorkenne, og sioa, þar sast Dyrd DROTTins j einu Skije.

11. Og GUD sagde til Mosen,

12. Eg hefe heyrt mogl Israels Barna, seig þeim, j Kvolld skulud þier foa Kiot ad eta, enn a Morgun skulud þier sediast af Braude, og þier skulud vita ad eg er DROTTinn ydar Gud.

II. 13. Ad Aptne komu (a) Vaktalar, og huldu Herbwdernar. Enn ad Morgne loa þar Hiela allt umkring Herbwdernar,

(a) (Vaktalar) edur *Coturnices*. Þad Fugla kin er okiendt med oss.

14. Enn þegar Hielann var burtu, Sioa, þa loa þar oa Eydemorkenne (nockud) kringlott og lijted, þvilijkast sem hrijmfrost a Jordu.

15. Enn þegar Israels Born soau þad, sagde hvor til annars, þad er * Man (b), þvi þeir vissu ecke hvad þad var. Þa sagde Moses til þeirra, þad er þad Braud sem DROTtinn hefur giefed ydur ad eta.

* Joh. 6, 31. 1 Cor. 10, 3.

(b) (Man) þyder a Ebreisku eina Spurn, og merker þad, ad Evangelium verde oss giefed af Himnum aan vorrar Forþienustu og Þancka, af eintoomu Naad, eins og Man var giefed.

16. Enn þetta er GUDs Skipan, Safne hvor þar af, so miked sem hann hefur þorf til ad eta, og take einn Gomor fyrer sierhvort Hofud, epter Soalnanna Tale, sem hann hefur j sinne Tialldbwd.

17. Og Israels Born giordu so, og samansofnudu sumer meira, enn sumer minna.

18. Enn þa þad var mællt med Gomor, þa * fieck sa eckert afhlaups sem meira hafde safnad, sa og ecke midur sem minna hafde safnad, helldur hafde hvor safnad so miklu sem hann þurfte sier til Atvinnu. * 2 Cor. 8, 15.

19. Og Moses sagde til þeirra, Eingenn skal leifa þar nockud af til Morguns.

20. Enn þeir hlyddu ecke Mose, sumer drou af og leifdu til annars Dags, enn þad vall Modkum, og wldnade. Þar fyrer vard Moses reidur vid þa.

21. So sofnudu þeir hvorn Morgun þar af, so miked sem hvor kunne ad eta, enn þa Solenn skein heitt þa brwdnade þad.

22. A þeim Siøtta Deige sofnudu þeir twofollldu Braude, Joa, tveimur Gomor fyrer sierhvorn einn. So geingu aller þeir Yppurstu af Safnadenum til Mosen, og giordu honum þad kunnugt.

23. Þa sagde hann til þeirra, þad er þad sem DRottinn sagde, A Morgun er þad Sabbaths Dagur heilagrar Hvijldar (c) DRottins, hvad þier vilied baka, þad baked, og hvad þier vilied matgiora, þad matgiored, enn allt þad sem Afgangs er, þad loated vera, so þad meige geyma til Morgunsins.

(c) (Sabbaths Dagur) Sabbath þijdest Hvijld, þvi er þad eitt, Sabbaths Dagur, og Hvijldar Dagur.

24. So lietu þeir þad vera til Morguns, so sem Moses baud þeim, og þad wldnade ecke, og eige Madkade þad.

25. Þa sagde Moses, eted þad j Dag, þviad j Dag er DROttins Sabbath, A þessum Deige finned þier þad ecke a Morkenne.

26. Sex Daga skulud þier safna þvi, enn sa Siounde Dagur er Sabbaths Dagur, og a þeim Deige finnst þad eigi.

27. Enn a þeim Siounda Deige, geingu nockrer af Folkenu vt, ad safna þvi samann, enn þeir fundu eckert,

28. Þa sagde DRottinn vid Mosen, Hvorsu leinge tregdist þier vid ad vardveita mitt Logmaal, og mijn Bodord?

29. Sioo, DRottinn hefur giefed ydur Sabbaths Dagenn, og þar fyrer giefur hann ydur a þeim Siotta Deige tveggia Daga Fædslu, þvi skal hvor einn vera heima a sijnu Heimele, og eingenn fara vt af sijnum Stad, a þeim Siounda Deige.

30. So hiellt Folked þann Siounda Dag.

31. Og Jsraels Hws kallade þetta Man, og þad var lijka sem Coriander fræ, og hvijtt, og þess Smeckur var so sem Hveitesalla med Hunange.

32. Og Moses sagde, þetta er þad sem DROttinn baud, fylled einn Gomor þar af, so ad þad geymist framm til ydar Epterkomanda, so ad menn meige sioo þad Braud, med hvoriu eg fædde ydur a Eydemorku, þa eg vtleidda ydur af Egyptalande.

33. Og Moses sagde til Aaron, tak þier eina Fotu, og legg einn Gomor fullann af Man þar j, og laat þad vardveitast fyrer DROTTne til ydar Epterkomanda.

34. So sem DROTTJNN baud Mose, so liet Aaron þad sama vardveitast, hioo (d) Vitnesburdenum.

(d) (Vitnisburdenum) þad er, j þeim Stad sem Menn offrudu, og giordu Bæner sijnar, og predikad var, aadur enn Tialldbudenn var gierd.

35. Og Jsraels Born aatu Man j Fiorutijgu aar, þangad til þeir komu j þad Land þar sem þeir skylldu bwa, þeir aatu og Man, þar til þeir komu j Landamerke Canaans Lands.

36. Enn einn Gomor er Tijunde Partur Epha.

# XVII. Capitule.

(I) Jsraels Born drecka Vatn af Steinenum; og (II) Staira Amalekita.

I. Og sa allur Almwge Jsraels Barna foor vr Eydemorku Sin, þeirra Dagleid, sem DROTTinn baud þeim, og settu sijnar Herbwder j Raphidim, þar fieck Folked eckert Vatn ad drecka.

2. Og þeir þrattudu vid Mosen, og sogdu, gief oss Vatn ad drecka. Moses sagde til þeirra, þvi þraatted þier so giegn mier, þvi freisted þier DROTTins?

3. Og þa Folked þyrste so epter Vatnenu, þa moglade þad j giegn Mose og sagde, hvar fyrer lietstu oss fara af Egyptalande, til þess, ad þu lætur nu vor Born og Fienad deya hier af þorsta?

4. Þa kallade Moses til DROTTins, og sagde, Hvad skal eg giora vid þetta Folk? Innann Skams munu þeir lemia mig Griote.

5. DRottinn sagde til hans, Gack framm undann Folkenu, og tak nockra af Olldungum Jsraelis med þier, og tak þinn Staf j þijna Hond, med hvorium þu sloost a Vatned, og gack af Stad.

6. Sioo, Eg vil þar standa fyrer þier, yfer einum Steine j Horeb, Liosta þu med Stafnum a * Steinenn, þa skal renna Vatn af honum, so ad Folked drecki. Og Moses giorde so, fyrer Olldungum Jsraelis,

* 1 Cor. 10, 4.

7. Og menn kolludu þann Stad Massa og Meriba, (a) vegna þraattanar Jsraelis Barna, og þar fyrer, ad þeir hofdu so * Freistad DROTTins, og sagt, Hvort mun DROTTinn vera a medal vor, eda eige? * Ebr. 3, 8. 9.

(a) Massa merker Freisting. Meriba Þraattan.

II. 8. Þa kom Amalech, og hiellt Orustu vid Jsrael j Raphidim.

9. Og Moses sagde vid Josua, utvel oss Lid, far vt og berst vid Amalech, enn eg vil standa efst uppa Fiallenu a Morgun, og hafa GUDs Staf j minne Hende.

10. Og

10. Og Josua giorde so sem Moses sagde honum, og bardest vid Amalech. Enn Moses, Aaron og Hur geingu efft uppa Fialled,

11. Og alla þa stund sem Moses hiellt sijnum Hondum upp, þa vann Israel, enn þa hann liet sijnar Hendur nidur sijga, þa vann Amalech.

12. Enn Moses Hendur voru þungar, þar fyrer toku þeir einn Stein, og lietu under hann, og hann sette sig þar uppa. Enn Aaron og Hur studdu hans Hendur, sinn a hvoria hlid, og hans Hendur mædduft ecke allt til Solarfalls.

13. Og Josua lægde Amalech, og hans Folk med hvössu Sverde.

14. Og DRottinn sagde til Mose, Skrifa þu þetta j Bok til minnis, og biod þad Eyrum Josue, Þviad eg vil so afmaa Amalech under Himnenum, ad eingenn minnest leingur a hann.

15. Og Moses biggde þar eitt Alltare, og kallade þad DRottins, Nissi (b).

(b) Nissi þydest Mitt striids Merke.

16. Þvi hann sagde, Þetta er eitt Teikn hiaa DRottins Haasæte, ad DRottinn mune beriast moote Amalech fra Barne til Barnabarna.

## XVIII. Capitule.

Jethro gefur Mose Eitt Gott Raad.

Nu sem Jethro Kiennemadur af Madian, Maagur Mose, heyrde allt þad sem Gud hafde giort Mose og sijnu Folke Israel, hvorsu ad DRottinn hafde vtleidt Israel af Egyptalande,

2. Þa tok hann Zephora Moses Kvinnu, hvoria hann hafde aptur sendt,

3. Og tvo hennar Sonu, Enn firste hiet Gersom, þvi hann sagde, Eg var einn Giestur i framande Lande.

4. Og sa annar Elieser, þvi hann sagde, Mijns Fodurs Gud hefur vered mijn Hiaalp, og hefur vardveitt mig fra Sverde Pharaonis.

5. Og sem Jethro Maagur Moses kom, og hans Syner og Kvinna, j Eidemorkena til hans, þar sem hann hafde sett sijnar Herbwder, hiaa Guds Fialle,

6. Þa liet hann seigia Mose, Eg Jethro Maagur þinn er komenn til þijn, og þijn Kvinna, og bæder hennar Syner med henne.

7. Þa gieck Moses vt j moote honum, og laut honum, og mynntest vid hann. Og er þeir hofdu heilsast, þa geingu þeir jnn j Tialldbwdena.

8. Moses kunngiorde sijnum Maage allt þad sem DRottinn hafde giort Pharaoni, og þeim Egyptsku fyrer Israels skulld, og so allt þad Erfide, sem þeir hofdu haft j Ferdenne, og hvornenn DRottinn hafde frelsad þa.

9. Þa gladdest Jethro fyrer alla þessa goda Hlute, sem DRottinn hafde giort Israel, og frelsad þa af Egyptskra Manna hende.

10. Og Jethro sagde, Blessadur sie DRottinn, sem ad frelsade ydur af Egyptskra Manne Hende, og af Hende Pharaonis, Hann kann ad frelsa sitt Folk af Egyptskra Manna Hende,

11. Nu veit eg, ad DRottinn er meire enn aller adrer Guder, þar fyrer, ad þeir fromdu Drambseme moot þeim.

12. Og Jethro Mose Maagur tok Brenneforner, og Offrade Gude. Þa kom Aaron, og þeir aller Olldungar Israels, ad eta Braud med Maage Moses, fyrer Gude.

13. Og annars Dags sette sig Moses til ad Dæma Folked, Og Folked stod fyrer honum fra Morgne til Aptans.

14. Þegar hans Maagur saa allt þad hann giorde vid Folked, þa sagde hann, Hvad er þad þu giorer vid Folked? Þvi situr þu alleina, og allt Folked stendur fyrer þier fra Morgne og til Kvollds?

15. Moses svarade honum, Folked kiemur til mijn og leitar Guds Atkvædis.

16. Þvi nær nockur Maal gioraft þeirra a mille,

a mille, þa koma þeir til mijn, ad eg dæme um þær Saker sem til falla a mille sierhvors Manns, og hans Naunga, og ad eg kienne þeim Guds Setninga, og hans Logmaal.

17. Hans Maagur mællte til hans, Þad er ey gott sem þu giorer,

18. Þetta Erfide giorer þig þreyttann, og þad Folk sem med þier er, su jdia er þier ofþung, þu maatt þvi ecke einnsamann af stad koma,

19. Þar fyrer hlyd minne Roddu, Eg vil leggia þier Raad, og minn Gud vera med þier. Annast þu Folked j þvi sem Gude til kiemur, og ber framm þeirra Maalefne fyrer Gud,

20. Set þeim Løg og Riett, kienn þeim Veigenn sem þeir skulu a ganga, og þau Verk sem þeir skulu giora.

21. Enn sioa þig um a medal alls Folksins, epter nockrum valenkunnum Mønnum, sem oottast Gud, og eru saunorder, og hata Agyrnd, og set þessa yfer þa, Suma yfer Þusund, suma yfer hundrad, suma yfer fimmtije, og suma yfer tiju,

22. Ad þeir ætijd dæme Folked. Enn sie þar nockur stor maal, þa laat þau koma fyrer þig, enn laat þa dæma øll onnur smærre maal, So verdur þier þetta liettbærara, þegar þeir bera med þier.

23. Ef þu villt nu þetta giora, þa kanntu ad frammkvæma þad sem Gud bydur þier, so maa og allt þetta Folk koma med Fride til sinna Heimkynna.

24. Moses hlyddé Ordum sijns Maags, og giorde allt þad sem hann sagde,

25. Og Utvalde froma Menn af øllum Israel, og sette þa til Høfdingia yfer Folked, suma yfer Þusund, suma yfer hundrad, suma yfer fimmtiju, og suma yfer tiju,

26. Ad þeir skylldu alltijd sitia Doma yfer Folkenu. Enn øllum Stoor-Maalum skylldu þeir skiota til Mosen, enn þeir sialfer skylldu dæma øll smærre Maal.

27. So liet Moses sinn Maag ferdast heim aptur j sitt Land.

# XIX. Capitule.

Underbuningur til ad Heyra Guds Løgmaal.

A þridia Maanade epter þad sem Israels Børn voru utgeingenn af Egyptalande, þa komu þeir a þeim Deige j Eydemørku Sinai,

2. Þvi þeir ferdudust fra Raphidim, og villdu til Eydemerkur Sinai, og þeir settu sijnar Herbyoder j sama Stad j Eydemørkenne, giegnt Fiallenu.

3. Enn Moses gieck upp til GUds. Og DROTTJNN kallade hann af Fiallenu og sagde, so skalltu seigia til Jacobs Hwss, og kunngiora Israels Bornum.

4. Þier hafed sied hvad eg giorde þeim Egyptsku, og hvorninn eg hefe bored ydur a Arnarvængium, og tekid ydur til mijn.

5. Ef þier vilied hlyda minne Roddu, og hallda minn Saattmaala, þa skulud þier vera mijn eigenn Eign, af øllu Folke, þvi øll Jordenn er mijn.

6. Og þier skulud vera mier eitt * Kiennemannlegt Konungs Rijke, og eitt Heilagt Folk. Þesse eru þau Ord sem þu skallt seigia Israels Bornum. * 1 Petr. 2, 9.

7. Moses kom, og kallade samann Ølldunga Lydsins, og lagde framm fyrer þa øll þesse Ord, sem DROTTinn hafde boded.

8. Þa svarade allur Lydurenn under eins, og sagde, Allt þad sem DROTTinn hefur sagt, þad vilium vier giora. Og Moses sagde DROTtni aptur Ord Folksins.

9. Þa sagde DROTTinn til Mose, Sia, eg vil koma til þijn j einu þickvu Skije, uppa þad ad Folked meige heyra mijn Ord, þau sem eg tala vid þig, og trwe þier æfinnlega sijdann. Og Moses sagde DROTTNI fra Ordum Lydsins.

10. Og DROTtinn mællte vid Mosen, Far til Folksins, og helgadu þad j Dag, og a Morgun, ad þeir þvoe sijn Klæde,

11. Og sieu bwner a þridia Deige, þviad

a þeim þridia Deige mun DRottinn ofann stijga yfer Sinai Fiall, fyrer ollu Folke.

12. Settu Folkenu eitt takmark umhverfis Fiallid, og seig þu til þeirra, vared ydur, ad þier ganged ecke uppa Fialled, og komed ecke helldur ydst vid þad, þvi * hvor sem kiemur vid Fialled, hann skal Dauda deya.

* Ebr. 12, 20.

13. Eingenn Manns Hond skal snerta hann, helldur skal hann med Griote lemiast eda med Skotum jhel skiotast, hvort þad er helldur Madur eda Kvikende, þa skal þad ecke lifa, enn þegar blaased er j Basuned, þa skulu þeir fara til Fiallsins.

14. Og Moses gieck ofann af Fiallenu til Folksins, og helgade þad, og þeir þvodu sijn Klæde.

15. Hann sagde til þeirra, vered buner a þeim þridia Deige, og komed ecke nær Kvinnum.

16. Og þegar sa þridie Dagur kom, og liost var orded, þa komu Reidarþrumur, og Elldingar, og eitt þickt Skij a Fialled, og Ludursins Hliod vard oskaplega sterkt, so ad allt Folked vard hrædt, þad sem var j Herbudunum.

17. Og Moses leidde Folked vt af Herbudunum j mots vid Gud, og þad stood under Fiallenu.

18. Enn allt Sinai Fiall Rauk, þviad DRottinn foor ofann yfer Fialled med Ellde, og einn Reykur gieck up af þvi, so sem Reykur af Ofne, og allt Fialled skalf ogurlega.

19. Og Ludursins Hliod vard stærra og stærra. Moses talade, og GUd svarade honum hatt.

20. Og sem DROTTinn var ofann komenn yfer Fialled Sinai, a efsta Hvirfel Fiallsins, kallade hann Mosen efst uppa Fialled, og Moses gieck upp.

21. Pa sagde DROTTinn til hans, Far þu ofann, og vitna fyrer Folkenu, ad þad briotest ecke hingad til DROTTins, ad sia hann, so ad eige falle fiolde af þeim.

22. Enn Prestarner sem ganga til DROttins, þeir skulu helga sig, so ad DROTTINN lioste þa ecke.

23. Og Moses sagde til DROTTins, Folked mun ecke stijga uppa Sinai Fiall, þviad þu vottader fyrer oss, og sagder, Settu eitt Takmark umhverfes Fialled, og helga þad.

24. DROTTinn sagde til hans, Far, og stijg ofann, þu, og Aaron med þier, skulud stijga upp, Enn Kiennemennerner og Folked skulu ecke framm briotast ad stijga upp til DROTTIns, so hann ecke skade þa.

25. Og Moses gieck ofann til Folksins, og bodade þvi þetta.

## XX. Capitule.

Moses fær þau Heilogu Tiju-Laga Bodord GUds.

Og DROTTinn talade oll þesse Ord,

2. Eg er DROTTinn þinn GUd, sem vtleidde þig af Egyptalande, af þvi Prældoms Huse.

3. Pu skallt ecke hafa Annarlega Gude fyrer mier.

4. Pu skallt eingenn Bilæte giora þier, eda nockra Lijking, epter þvi sem er a Himnum uppe, eda a Jordu nidre, eda þvi sem er j Votnonum under Jordunne.

5. Pu skallt ecke tilbidia þau, og eige þiona þeim, þvi eg er DROTTinn þinn GUd, einn vandlætande GUd, vitiande Ranglæteɼ Fedranna a Bornunum, j Pridia og Fiorda Lid, þeirra sem mig hata,

6. Enn giorande Miskunsemd a Morgum Pusundum, þeim sem mig elska, og mijn Bodord vardveita.

7. Pu skallt ecke vanbruka DRottins þijns Guds Nafn, þvi ecke mun DRottinn ohegndann vera laata þann sem misbrukar hans Nafn.

8. Minnst þu a Sabbaths Dagenn, ad þu helger hann.

9. Sex Daga skalltu erfida, og vinna alla þijna (a) Vinnu,

(a) (Vinnu) þad er, allt hvad þu hefur ad giora.

10. Enn sa Siounde Dagur er Drottins þijns Guds Sabbaths dagur, þa skallt þu eckert Verk vinna, hvorke þinn Sonur, ey helldur þijn Dotter, eige þinn Þræll, eige þijn Amboatt, eige þitt Kvikfie, eige helldur nockur vtlendskur, sem er innann þinna Borgarhlida

11. Þviad a sex Dogum giorde DRottinn Himen og Jord, og Sioenn, og allt þad sem þar inne er, og hann hvildest þann siounda Dag, þar fyrer blessade DRottinn Sabbaths Dagenn, og helgade hann.

12. * Þu skallt heidra þinn Fodur, og þijna Modur, So þu Lcanglijfur verder j þvi lande sem DRottinn Gud þinn giefur þier.

* Matth. 15, 4. cap. 19, 19. Marc. 7, 10. Luc. 18, 20. Eph. 6, 2.

13. * Þu skallt ecke j Hel-sloa.

* Matth. 15, 21. cap. 19 18.

14. * Þu skallt ecke Hoordom drijgia.

* Matth 5, 27. cap. 19, 18.

15. * Þu skallt ecke stela. * Matth. 19, 18.

16. * Þu skallt ecke bera Falskann Vitnisburd moote þijnum Naunga. * Matth. 19, 18.

17. * Þu skallt ecke gyrnast þijns Nœunga Hvos. Þu skallt ecke gyrnast þijns Nœunga Kvinnu, eige hans Þræl, eige hans Amboatt, eige Uxa edur Asna, eda nockud þad sem hans er. * Rom. 7, 7. cap. 13, 19.

18. Og allt Folked soa Reidarþrumur, og Elldingarnar, og Hliod Lvodursins, og Fialled riukanda. * Og sem þeir soau þetta, þa (b) flydu þeir, og geingu langt i burtu,

* Ebr. 12, 19.

(b) (Flydu) Logmoalid einungis hræder mann og rekur hann fra Gude.

19. Og sogdu til Mosen, Tala þu vid oss, vier vilium vera þier hlyduger, og loat Gud ecke tala vid oss, annars deyum vier.

20. Moses sagde til Folksins, Ottest ecke, þvi Gud er komenn til þess, ad hann villde reyna ydur, og ad hans Otte sie fyrer ydrum Augum, so ad þier syndgest ecke.

21. Og Folked stood langt j burtu fra, Enn Moses gieck til Þokunnar, j hvorre Gud var.

22. Og DRottinn sagde til hans, So skalltu seigia til Israels Barna, þier hafed sied, ad eg hefe talad vid ydur af Himnum,

23. Þar fyrer skulud þier ongva Gude af Silfre edur Gulle giora ydur fyrer mier.

24. Þu skallt giora mier eitt Alltare af Jordu, og þar uppa skalltu offra þinne Brennefoorn, og Þacklætis foorn af þijnum Nautum og Saudum. Þvi j hvorium stad sem eg skicka ad vera skule Minning mijns Nafns, þangad vil eg koma til þijn, og blessa þig,

25. Vilier þu giora mier Alltare af Steinum, þa skalltu ecke biggia þad af hoggnum Steine, þvi loater þu Knijf koma yfer þad, þa saurgar þu þad.

26. Þu skallt ecke ganga upp Troppur til mijns Alltaris, so ad þijn blygdan opennberest þar ecke.

## XXI. Capitule.

Margskonar verallдieg Log um Þionustu Folk, ohlijdenn Born, þoa sem stela Monnum burt. o: s: f:

Þetta er sa Lagariettur sem þu skallt leggia fyrer þa.

2. Ef þu kauper einn Ebreskann þræl, þa skal hann þiona þier sex oar, Enn a þvi siounda oare skal hann fara frioals og laus fra þier.

3. Kome hann ei Kvongadur til þijn, þa skal hann og okvæntur fara fra þier.

4. Enn ef hann kiemur Kvongadur til þijn, þa skal hans Kona fara burt med honum. Enn ef hans Herra hefur giefed honum eina Konu, og hafe hun fædt Sonu eda Dætur, þa skal Kvinnann og Bornenn heyra hans Herra til, enn hann skal fara burtu Konulaus.

5. Enn ef Þrællenn seiger, Eg elska minn Herra, og so mijna Kvinnu og Born, eg vil ecke vera frioals,

6. Þa skal hans Herra leida hann inn fyrer Gudena, og hallda honum vid Dyrnar, eda vid Dyrastafenn, og stinga j giegnum hans

hans Syra med All, sijdann skal hann vera hans Præll æfinnlega.

7. Ef nockur selur sijna Dottur til Amboatiar, þa skal hun ecke fara j burt so sem Prælar.

8. Pockneſt hun ecke sijnum Herra, og hann vill ecke hioalpa henne til eigennords, þa skal hann loata hana lausa. Enn ecke skal hann hafa Valld til ad selia hana nockrum Uilendum Monnum, þvi hann forsmoade hana.

9. Enn ef hann hefur fastnad hana Syne sijnum, þa giore vid hana so sem sijna Dottur.

10. Enn ef hann gipter honum adra, þa skal hann ecke korta nockud af hennar koste, Klædnade og Egtaskylldu.

11. Enn giore hann ecke þetta þrennt, þa skal hun med frelse fara burt fyrer eckert.

12. Hvor hann lystur mann, so hann deyr, sa skal og Dauda deya.

13. Enn hafe hann ecke seted um hans lijf, helldur hefur Gud lated hann annars oforvarandis falla j hans hendur, þa vil eg setia þier einn stad, þangad sem hann skal flya,

14. Enn ef nockur misgiører med Drambseme vid sinn Noaunga, og vegur hann svikſamlega, þa skalltu taka hann fra mijnu Alltare, so hann deye.

15. Sa sem lystur sinn Fodur eda Modur, hann skal Dauda deya.

16. Sa sem stelur Manne, og selur hann, so þad verde uppvijst um hann, hann skal Dauda deya.

17. * Sa sem bølvar Fødur eda Modur, hann skal Dauda deya. * Matth. 15, 4. Marc. 7, 10.

18. Ef Menn þroattast oa, og annar hvor lystur annann med Steine, eda Knefa, og hann deyr þo ecke, helldur leggst j Reckiu,

19. Ef hann rijs upp, og geingur med Staf vote, þa skal soa vera sijknsaka sem hann sloo, þo skal hann bitala honum Verkafall, og giefa Læknis laun.

20. Ef nockur lyster sinn Præl eda Amboatt med staf, so hann deyr undann hans Hondum, þa skal hann lijda Refsing þar fyrer.

21. Enn ef hann lifer einn Dag eda tvo, þadann af, þa skal hann ecke Refsingum mæta, þvi (Præll og Amboatt) þad er hans Peningur.

22. Ef Menn þroattast oa, og lyster nockur Kviduga Konu, so hun skilst vid hennar Hosn, þo henne ad skadlausu, þa skal sa straffast med Peninga gialld, epter þvi sem þeirrar Kvinnu Madur leggur a hann, og Domendur dæma.

23. Enn hlioteſt skade þar af, Pa skal hann loata Lijf fyrer Lijf,

24. * Auga fyrer Auga, Tonn fyrer Tonn, Hond fyrer Hond, Foot fyrer Foot,

* Matth. 5, 38.

25. Bruna fyrer Bruna, Soar fyrer Soar, Bloama fyrer Bloama.

26. Ef Madur lystur j Auga a sijnum Præl eda Amboatt, so þad fordiarfast, þa skal hann giefa honum Frelse fyrer hans Auga.

27. So og lijka, ef hann brytur Tonn wr Præle sijnum eda Amboatt, þa skal hann giefa honum Frelse fyrer sijna Tonn.

28. Ef Uxe stoangar Mann edur Kvinnu til bana, þa skal Uxenn grytast j hel, og ecke skulu Menn eta hann, Og þar med er Eigarmadur Uxans saklaus.

29. Enn hafe hann fyrr vanur vered ad stoanga, og Eignarmannenum var þad sagt, og hann liet ecke þadann j fra vardveita hann, og hann stoangar Mann eda Kvinnu til bana, þa skal Uxenn grytast j hel, og hans Eignarmadur skal deya.

30. Enn verde honum tilsagt ad bæta med Fie, þa skal hann giefa so miked fyrer sitt Lijf, sem honum verdur til-sagt.

31. Under sama Dome skal hann liggia, hvort sem hann stoangar Son eda Dottur Manns til bana.

32. Enn

32. Enn ef hann stangar nockurs Manns Præl edur Ambatt, þa skal sa er a, giefa þeirra Hwsbonda þriatiigu Siclos Silfurs (a), og Uxenn skal grytast j Hel.

(a) (Siclos) þad er 15 aura Silfurs.

33. Ef nockur Madur opnar Gryfiu, eda grefur Grof, og byrger ei aptur, og fellur þar i Uxe eda Asne,

34. Þa skal sa sem Gryfiuna giorde, bitala annad aptur med Peningum, þeim er atte, Enn hafa sialfur hid Dauda.

35. Ef nockurs Manns Uxe stangar annars Uxa til bana, þa skulu þeir selia þann lifanda Uxann, og skipta med sier þeim Peningum, og lijka þeim enum Dauda.

36. Enn hafe hann stangad fyrre, og visse hann þad, og Eignarmadur liet ei vardveita hann, þa skal hann giallda Uxa fyrer Uxa, enn hafa sialfur þann dauda.

# XXII. Capitule.

Moses seger framveges fra Veralldlegu Logmale um Þiofa, Akur, og Vijngard, etc.

Ef Madur stelur Naute edur Saud, og slatrar þvi, eda selur þad, þa skal hann giallda aptur fimm Uxa fyrer einn, og fiora Saude fyrer einn Saud.

2. Ef Þiofur verdur tekenn þa hann brytst j Hws, og verdur hann þar lostinn, so hann deyr, þa skal eingenn Bloddomur ganga yfer vegandann.

3. Enn ef hann giorer þad ad upprunnenne Solu, þa skal Bloddomur yfer Veganda ganga Þiofurenn skal skila þvi aptur, Hafe hann ekkert, þa skal hann seliast fyrer sinn stuld,

4. Enn ef Menn finna þad Þiofstolna lifanda hia honum, hvort helldur þad er Naut, Asne edur Saudur, þa skal hann giefa þad tvofalldt aptur.

5. Ef nockur spiller Akre edur Vijngarde, og lætur sinn Fienad giora skada a annars Akre, þa skal hann bæta skada aptur, af þvi bestu sem hann hefur a sijnum Akre, eda a sijnum Vijngarde.

6. Ef Elldur kviknar og kiemur j Þyrna, og brenner Vindene, eda þad Korn sem enn stendur a Akre, þa skal sa Skada bæta sem Elldinn kveikte.

7. Ef nockur selur sijnum Naunga Peninga edur onnur þijng til vardveitslu, og verdur þad stoled fra honum vor hans Hwse, hitest Þiofurenn, þa skal tvijgiallda þad aptur,

8. Enn finnest Þiofurenn ecke, þa skal Hwsbondenn innleidast fyrer (a) Gudena, hvort hann hefur ecke lagt sijna Hond a eign sijns Naunga.

(a) (Gudena) Guder kallast Domendur, þar fyrer, ad þeir j Guds stad, epter Guds Logmale og Orde, enn ei epter sijnum þotta, dæma eiga, og drottna, so sem Christus avijsar, Joh. 10, 35.

9. Ef nockur giefur odrum Sok, fyrer nockurskonar Oriett, sie þad fyrer Uxa eda Asna, edur Saud, eda Klæde, eda fyrer nockurn annann Hlut, þann er horfed hefur, þa skal beggia þeirra malefne koma jnn fyrer Gudena, og hvorn sem Guderner dæma sakadann, sa skal tvijgiallda þad aptur sijnum Naunga.

10. Ef nockur selur sijnum Naunga til vardveitslu, annad hvort Asna, Uxa, Saud, edur nockud annad Kvikfie, og þad deyr fyrer honum, eda lestist, eda hverfur burt fra honum, so ad eingenn sier þad,

11. Þa skal þad koma til eins Eyds, fyrer DROTTne, þeirra a millum, ad hann hafe ecke lagt sijna Hond a eign Naunga sijns, og þann Eyd skal Eignarmadurenn taka, og sa annar skal ecke bitala þad.

12. Enn ef þad er stolid j burt fra honum, þa skal hann bitala eignar Mannenum skadann,

13. Enn ef Dyr bijtur jhel, þa skal hann koma þar ad Vitnum, og ecke bitala.

14. Ef Madur hefur Fie til lans af sijnum Naunga, og þad lemst, edur deyr, so Eignarmadurenn er ecke hia, þad skal hann bitala.

15. Enn sie Eignarmadurenn þar hia, þa skal

skal hann ecke bitala þad, þvi hann leigde þad fyrer sijna Peninga.

16. Ef nockur lockar eina Jungfru, sem ecke er nockrum Manne handfest, og liggur hann hana, þa skal hann giefa henne hennar Morgungaafu, og taka hana sier til Eigennkvinnu.

17. Enn vilie hennar Fader ecke gipta hønum hana, þa skal hann vega henne vt so miked Fie, sem Meyanna Morgun-gaafa plagar ad vera.

18. Ecke skalltu laata galldrakonuna lifa.

19. Hvør sem samblandast Fienade hann skal vissulega deya.

20. Hvør sem Foorner fører odrum Gudum enn alleinasta DROTTni hann skal forbannast.

21. Þu skallt ecke fiefletta nie underþricka þann vtlenda, þviad þier hafed vered vtlender j Egyptalande.

22 Þier skulud ecke Mein giora Eckium og Foðurlausum Bornum,

23. Ef giorer þu þeim mein, þa munu þau kalla til mijn, og eg vil bænheyra þeirra Kall,

24. Þa mun Grimd mijn reidast, so ad eg mun liosta ydur jhel med Sverde, og eg mun laata ydar Kvinnur verda Eckiur, og ydar Born Foðurlaus.

25. Ef þu laanar mijnu Folke Peninga, þvi sem faatækt er, hiaa þier, þa skalltu ecke þreyngia þvi til Skada, eda leggia nockurt Okur uppa þad.

26. Ef þu tekur Klæde j Pant, af þijnum Naunga, þa faa þu hønum þad aptur fyrer Solar-fall,

27. Þviad hans Klæde er alleinasta Hulning hans Lijkama sem hann sefur j. Enn sie þad so, hann kallar til mijn, þa skal eg heyra hann, þviad eg er Miskunsamur.

28. *Þu skallt ecke Gudonum Bols bidia, og ecke lasta Hofdingiann a medal þijns Folks. * Gior: B: Post: 23, 5.

29. Þijna (a) Fylle og Taar (b) skalltu ecke laata undann dragast. Þu skallt giefa mier þinn Frumgietenn Son,

a) (Fylle.) Kallar hann allann hardann Avøxst, so sem er Korn, Eple, Perur, sem menn hafa til Matar.

(b) (Taar.) Kallar hann allann linann Avøxst, þar sem menn pressa Safa og drÿck af, so sem Vijnber og Oliuber.

30. Þad sama skalltu og giora af þijnum Nautum og Saudum. Sio Daga skal þad vera hiaa sinne Modur, enn þann aattunda Dag skalltu giefa mier þad.

31. Þier skulud vera eitt Heilagt Folk fyrer mier, þar fyrer skulud þier eckert Kiot eta sem slited er af Dyrum a Akrenum, helldur kasted þvi fyrer Hunda.

## XXIII. Capitule.

(I) Veralldleg Log um Ljugvotta, Rangsnuna Doma; (II) Andleg Log um Sabbath, og Þær þriar storu Hatijder.

I. Þu skallt ecke trua Raungum Kiærumaalum, og gior ecke þeim Ogudlega nockra hiaastod, so ad þu berer falskt Vitne.

2. Þu skallt ecke filgia fiølmenntum Hoop til Illgiorda, og svara þu ecke fyrer Doome, ad þu filger þeim sem fleyre eru og ganger so fra Riettenum.

3. Þu skallt ecke fegra þann Faatæka j hans Maalefne.

4. Ef þu mæter þijns Ovinar Uxa edur Asna, sem villt fer, þa leid þu hann strax aptur til hans.

5. Siaaer þu Asna þijns Ovinar liggia under Byrde, vara þig, og laat hann ecke liggia, helldur (a) forsoma giarnann þitt eiged fyrer þad.

(a) (Forsoma.) þad er, yfergief þitt eiged aa medan, og baga þig.

6. Þu skallt ecke halla Riettarfare hins Faatæka, j hans Sok.

7. Vertu langt fra Lognum Sokum. Þu skallt ecke slaa þann Meinlausa og Riettlaata jhel, þvi eg gialpt ecke þann ogudlega.

8. Eige skalltu Giafer þiggia, þviad Giafurnar blinda þa Siaandu, og umsnva Maalefnum Riettferdugra.

9. Pricked ecke nidur þeim Framanda, þviad þier vited vel Hiortu hinna Utlendsku, þviad þier hafed og vered Utlendingar a Egyptalande.

10. Sex aar skalltu eria Jordena og saa, og samansafna Avoxtum Jardar.

11. Pad Siounda aared skal hun liggia og hvijla sig, so ad þeir Fataæku a medal þijns Folks meige eta þaraf, og hvad þarepter verdur, þa laat Villudyrenn a Mørkenne eta þad. So skalltu og giora vid þinn Vijngard, og Vidsmiørsvidargard.

II. 12. Sex Daga skalltu erfida, enn þann Siounda Dag skalltu hallda helgann, so ad þinn Uxe og Asne meige hvijla sig, og ad þinnar Ambaattar Sonur, og sa Framande meige endurnæra sig.

13. Allt hvad eg hefe sagt ydur, þad skulud þier hallda. Og þier skulud ecke minnast a annara Gllda Nøfn, og þeir skulu ecke heyrast af ydrum Munne.

14. Pier skulud hallda mier Hatijder þrisvar a hvøriu aare, sem er, þa Osyrda Braudsins Hatijd.

15. So ad þu eter Osyrt Braud a Sio Døgum, a þeim Maanade Abib (sem eg baud þier) þvi þu foorst af Egyptalande þa somu Tijd. Enn ei skulud þier koma med toomum Høndum fyrer mitt Auglit.

16. Og þa Hatijd hins Firsta Kornskurdar Avaxtarins, sem þu saader a Akrenum, og þa Innburdar Hatijd, nær aared er vte, þa þu hefur jnnbored þitt Erfide af Akrenum.

17. Prisvar um aared skal allt þitt Karlkin birtast fyrer Drottnanda DROTTni.

18 Pu skallt ecke foornfæra mitt Offurs (a) Blood med Syrdeige, og þad Feita af minne Hatijd skal ecke bijda til Morguns.

(a) (Blooded) þad er, þu skallt ecke sæfa Paaskalambed, medur enn allt surt Braud er burtkomed ur þijnu Huse.

19. Pann firsta Avøgst af þijnum Jardar grooda skalltu bera j þijns DROTTINS Gllds Hws, þu skallt ecke matgiora Kided, a medann þad sygur sijna Modur.

20. Sia, Eg sende einn Eingel fyrer þier, sem skal vardveita þig a þijnum Veige, og leida þig til þess Stadar sem eg hefe tilreidt þier.

21 Par fyrer gacktu varlega fyrer hans Auglite, og hlyd hans Roddu, og styggdu hann ecke, þviad hann fyrergiefur ecke ydar Misgiorninga, og mitt Nafn er j hønum.

22. Enn sie þad so ad þu heyrer hans Rodd, og giører allt þad eg seige þier, þa vil eg vera Ovinur þinna Ovinna, og Mootstandare þinna Mootstødu-Manna.

23. Enn nær ad minn Eingell geingur fyrer þier, og leider þig jnn til þeirra Piooda, sem eru Amorei, Hethei, Pheresei, Canane, Hevei, Jebusei, og eg eydelegg þa,

24. Pa skalltu ecke tilbidia þeirra Gllde, nie þiona þeim, og eige helldur breita epter þeirra Verkum, helldur skalltu nidursloa og sundurbriota þeirra Skurgod.

25. Enn DRottne ydrum Gllde skulud þier þiona, so mun hann blessa þitt Braud og þitt Vatn. Og eg vil taka allann Siukdom fra þier.

26. Par skal eckert vera Avaxtarlaust nie Obyria j þijnu Lande, og eg vil laata þig verda laanglijfann.

27. Eg vil senda mijnar Ognaner undann þier, og giora allt Folk hrædt, sem þu kemur til, og eg vil laata alla þijna Ovine flya fyrer þier.

28. Eg vil senda (b) Oflugur undann þier, þær skulu vtryma fyrer þig þa Heveos, Cananeos, Hetheos.

(b) Crabrones, Flugur þær ed kvikna af Hest hræum.

29. Eige vil eg vtreka þa a einu aare fyrer þier, so ad Landed verde ecke j eyde, og ad Villudyrenn skulu ecke fiolgast j moote þier,

30. Eg vil vtreka þa smaamsamann fra þijnu Auglite, allt til þess þu vex og eignast Landed.

31. Og eg vil setia þijn Landamarke fra

þvi Rauda Hafe, og til Philisteanna Hafs, og j fra Eydemorku, og jnn til Vatnsfallsins. Þviad eg vil giefa Landsins Innbyggiara j þijnar Hendur, so ad þu skallt utreka þa fra þier.

32. Þu skallt ecke giora neina saatt vid þa, eda vid þeirra Gude,

33. Helldur laat þa ecke bwa j þijnu Lande, so ad þeir kome þier ei til ad syndgast j moote mier, þvi ef þu þionar þeirra Gudum, þa skal þad verda þier til Hneixlunar.

## XXIV. Capitule.

Moses fer aptur upp a Sinai Fiall, og til Drottens.

Og hann sagde til Mosen, gack upp til DROTTins, þu og Aaron, Nadab og Abihu, og þeir Siotijgu Olldungar j Israel, og falled framm langt fraa.

2. Enn Moses skal einn samann uppstijga til DROTTINS, enn þeir adrer skulu ecke koma þar j naand, Folked skal og ecke helldur koma upp med honum.

3. Moses kom, og sagde oll Ord DRottins, og allann Lagarietinn fyrer Folkenu. Þa svarade allt Folked med einne Roddu og sagde, vier viliunn giora epter ollum þeim Ordum sem DROTTINN hefur sagt.

4. Þa skrifade Moses oll DROTTins Ord, og hann stood snemma upp um Morguninn, og biggde eitt Alltare under Fiallenu, med Tolf Stoolpum, epter tolu Tolf Kinkvijsla Israels.

5. Og sende unga Menn af Israels Bornum, ad þeir skylldu foornfæra DRottni Brenneforner og Packlætisforner, af Nautum.

6. Og Moses tok halfpart af Bloodenu, og liet þad j eina Munnlaug, og odrum helmingenum stockte hann yfer Alltared.

7. Hann tok og Saattmaalans Bok, og las hana fyrer Folkenu so þad heyrde, og þa þad svarade, Vier viliunn giora allt þad sem DROTTINN hefur boded, og vera honum hlyduger.

8. Þa * tok Moses Blooded, og stockte þvi a Folked, og sagde, Siaed, þetta er Blood Saattmaalans, hvorn DROTTinn hefur giort vid ydur yfer ollum þessum Ordum. * Ebr. 9, 19, 20.

9. Og Moses, Aaron, Nadab, Abihu, og þeir Siotijgu Olldungar af Israel geingu upp,

10. Og sau Gud Israels. Under hans Footum var ad siaa þvilijkast sem fagur Saphirus, og so sem Himen þa hann er klaar.

11. Og hann riette ei sijna (b) Hond yfer þa Olldungana af Israel. Og þa þeir hofdu skodad Gud, aatu þeir og drucku.

(b) (Hond) hann skielfde þa ecke med Reidarþrumum og Elldingum so sem Folked.

12. Og DRottenn sagde til Mose, kom uppa Fialled til mijn, og vert þar, og eg vil giefa þier Steinspiolld, og Logmaaled, og Bodordenn sem eg hefe skrifad, þau sem þu skallt kienna þeim,

13. Þa stood Moses upp, og gieck uppa Guds Fiall, og hans Þienare Josua med honum,

14. Og sagde til Olldunganna, vered hier, þar til vid komum aptur til ydar, Siaa, Aaron og Hur eru hiaa ydur, falle nockur Maal til, þa laated þau koma fyrer þa.

15. Enn sem Moses kom uppa Fialled, þa hulde Skijed Fialled.

16. Og Guds Dyrd biggde uppa Fiallenu Sinai, og hulde þad j sex Daga med Skijenu, og kallade hann Siounda Dag af Skijenu a Mosen.

17. Og Dyrd DROTTINS var ad siaa þvilijkast sem einn brennande Elldur, efst a Fiallenu, fyrer Auglite Israels Barna.

18. Og Moses gieck midt jnn j Skijed, og stie uppa Fialled, og var a Fiallenu Fiorutijgu Daga og Fiorutijgu Naatta.

# XXV. Capitule.

Mose er skipad ad Heimta Upplyptingar-Offur af Folkinu, so ad eitt Tialldbud yrde giørd.

Og DROTTENN mællte vid Mosen, og sagde,

2. Seig þu Israels Børnum, ad þeir giefe mier eitt Upplyptingar-Offur, og take þad af sierhvorium Manne, sem þad giefur viliuglega.

3. Þetta er þad Upplyptingar-Offur, sem þier skulud taka af þeim, Gull, Silfur Kopar,

4. Gult Silke, Skarlat, Purpura, hvijtt Silke, Geita Hoar,

5. Raudar Hrwtagiærur, Greyfingia Skinn, þau Trie Setim,

6. Vidsmior til Lampanna, Jurter til Smyrsla, og til goods Ilms,

7. Onyx Steina, og adra inngreypta Steina til Lijf-Kyrtilsins, og til Briost-Skiolldsins.

8. Og þeir skulu giora mier einn Helgedom, so eg bwe a medal þeirra.

9. Þann skulud þier giora epter þeirre Tialldbwdar Mind, med ollum sijnum Umbwnade, so sem eg mun vijsa þier.

10. Giored eina Ork af Triam Setim, hun skal vera half þridiu Alnar ad leingd, halfrar annarar Alnar ad breidd, og halfrar annarar Alnar a Hæd.

11. Hana skulud þier gylla med hreina Gulle, bæde utann og innann, giora skalltu ofann um hana Koronu af Gulle, allt i kring.

12. Þu skallt steypa Fiora Gullhringa, og setia i Fiogur Horn Erkurennar, tvo uppa hvoria Sijdu.

13. Þu skallt giora Steingur af Triam Setim, og bwa þær utann med Gull,

14. Og stinga þeim i Hringana a sijdum Erkurennar, ad bera hana med,

15. Og þær skulu vera kirrar i Hringunum, og ecke takast af þeim.

16. Og þu skallt leggia i Orkena þann Vitnisburd sem eg vil giefa þier.

17. Þu skallt og giora einn Nadarstool, af skijra Gulle, halfrar þridiu Alnar langann, og halfrar annarar Alnar breidann.

18. Tvo Cherubim skalltu giora af slegnu Gulle, yfer badum Endum Nadarstoolsins.

19. Soa eine Cherubim skal vera a odrum Endanum, enn annar oa hinum odrum.

20. So þar sie Cherubim a badum Endum Nadarstoolsins. Og þesser Cherubim skulu utbreida sijna Vænge ofann yfer, so ad þeir hylie Nadarstoolenn med sijnum Vængium, og hvors þeirra Andlit skal standa hvort i moote odru, og þeirra Andlit skulu horfa a Nadarstoolenn. Og þu skallt setia Nadarstoolenn ofann oa Orkena,

21. Og leggia þann Vitnisburd i Orkena sem eg vil giefa þier.

22. Ur þeim Stad vil eg votta fyrer þier, og tala vid þig, sem er af Nadarstoolnum, millum þeirra tveggia Cherubim, sem eru uppa Vitnisburdar-Orkenne, allt þad sem eg vil biooda Israelis Bornum fyrer þig.

23. Þu skallt giora eitt Bord af Trie Setim, tveggia Alna langt, og Alnar breidt, og halfrar annarar alnar hoatt.

24. Og bwa þad allt med hreinu Gulle, Og þu skallt giora Gull Koronu þar ofan um kring,

25. Og eina List um kring eirnrar þverhandar hoafa, og Gullkoronu ofan umkring Listina.

26. Þu skallt og giora fiora Gullhringa þar a, og setia þa i þau fiogur horn Bordsins hia þeim fiorum Footum,

27. Hartnær uppunder Listenne skulu Hringarner vera, ad stinga Staungunum þar i, og ad bera Borded med.

28. Og þu skallt giora Steingurnar af Triam Setim, og bwa þær utan med Gull, ad bera Borded med.

29. Þu

29. Þu skallt giora Fatinn, Bikarana, Konnurnar, Skaalernar, af klaaru Gulle, af hvorium Dryckiaroffred skal offrast.

30. Og þu skallt alltid leggia Skodunar braud a Borded fyrer mier.

31. Þu skallt og giora eina Kiertastiku af klaaru þickvu Gulle; þar skal vera a Stiake, med Greinunum, Skaalunum, Knoppunum, og Blomstrunum.

32 Sex Pijpur skulu ganga vt af Kiertastikunne, þriar a hvoria sijdu.

33. Og hvor Pijpa skal hafa þriar opnar Skaaler, Knappa og Blomstur. Þar skulu vera sex Pijpur a Kiertastikunne,

34. Enn Stiakenn skal hafa fiogur openn Kier, med Knoppum og Blomunum,

35. Og einn Knapp under hvoriüm tveimur Pijpum, hvoriar sex ad ganga vt af Stiakanum.

36. Og bæde Knapparner og Pijpurnar skulu ganga vt af honum. Og alltsamann þetta skal vera af klaaru slegnu Gulle.

37. Þu skallt giora og sio Lampa þar ofan a, so ad þeir lyse hvor j giegn odrum,

38. Og Liosa sox og Liosa Slockvarann, allt af klaaru Gulle,

39. Og þu skallt giora þad af einu (a) Centener klaars Gulls, med ollu þvi sem þar heyrer til.

(a) (Centener) 30. Pund Gulls.

40. Og * sioa til ad þu giorer þad epter þeirre Mind sem þu saast a Fiallenu.

* Gb: Post: 7, 44. Ebr 8, 5.

## XXVI. Capitule.

Her seger fra Sierhverium Hluta Tialldbwdarennar.

Þu skallt giora * Tialldbwdena af tiu Tiolldunum, af hvijtu tvinnudu Silke, af Gulu Silke, af Skarlate og Purpura, Og Cherubim skalltu giora kostulega þar uppa,

* Ebr. 9, 2. 3.

2. Hvor Dwkur skal vera atta og tuttugu aalna langur, og fiogra aalna breidur, og þeir skulu aller tiju vera jafner.

3. Og skulu ætijd fimm festast til samans, hvor vid annann.

4. Og þu skalt giora Neslur af Gulu Silke j hvort Horn. Dwkanna, þar sem þeir skulu festast til samans, ad ætijd sie fester tveir og Tveir til samans j hornunum.

5. Þar skulu vera fimmtiju neslur a hvorium Dwk, so ad hvort meige festast vid annad.

6. Þu skallt giora fimm tiju Gullkroka ad festa Tiolldenn saman med, hvort vid annad, so þar verde ein Tialldbwd af.

7. Þu skallt og giora eitt Haarklæde af Geitahaare, yfer Tialldbwdena af ellefu Dwkum.

8. Og hvor Dwkur skal vera þriatiju alna langur, og fiogra alna breidur, og þesser ellefu Dwkar skulu vera jafnstorer.

9. Fimm skalltu teingia til samans, og sex til samans, so þu giorer þann siotta Dwkenn twofalldann a framanverdre Tialldbwdenne.

10. Og þu skallt giora fimmtiju Lyckiur a Jodrunum a hvorium Dwk, til ad festa þa saman med a Endunum.

11. So skalltu og giora fimtiju Messingar Krooka, og laata Krookana j Lyckiurnar, so ad Tialldid teingest saman med þvi, og verde ein Tiallbwd.

12. Enn þeir Dwkar sem afgangs eru af Tialldbwdenne, þa skalltu heingia halfpart vt yfer Tialldbwdena,

13. Einnrar alnar sijdt a baadar Sijdur, so ad þad sem af geingur skal vera vid hlid Tialldbwdarennar, og þekia hana a baadar sijdur.

14 Þu skallt og giora þak yfer þetta Þak, af raudlitudum Hrwtskinnum, og so enn eitt þak þar utanyfer, af Greifingia skinnum.

15. Þu skallt og giora Fialer til Tialldbudarennar af Triam Setim, sem standa meiga,

16. Tiju alna laung skal hvor Fiol vera, og halfrar annarar alnar breid.

17. Og hvor Fiol skal hafa tvo Titta, so ad hvor Fiol meige fost verda vid adra, so

skulu allar Fialer vera giordar til Tialldbwdarennar.

18. Tuttugu skulu standa fyrer Sunnanframm,

19. Og skulu hafa Fiorutiju Silfurfætur under sier, og tvær fætur under hvorre Fiol, hiaa hennar tveimur Tittum.

20. So skulu og tuttugu Fialer standa fyrer Nordanframm, a þeirre annare Sijdu.

21. Og fiorutiju Silfur fætur, og tveir Fætur under hvorre Fiol.

22. Sijdan skalltu og giora sex Fialer a bak vid Tialldbwdena, til Vesturs.

23. So skalltu og giora tvær Fialer þar til Baka, a þeim tveimur Hornum Tialldbwdarennar,

24. Ad hvoriar med sijnum Hornfiolum sieu saman festar nedan, og ofan til lijka so festar til samans med einum Sinkle.

25. Og þær Fialer skulu vera aatta, med þeirra Silfurfootum, sem eru sextan, tveir Fætur under hvorre Fiol.

26. Þu skallt og giora Steingur af Triam Setim, til Fialanna, Fimm vid þa eina Sijdu a Tialldbwdenne,

27. Og fimm til Fialanna vid þa adra Sijdu a Tialldbwdinne, og fimm til þeirra Fiala a bak vid Tialldbwdena, j Vestur.

28. Og þu skallt stijnga staungunum midt j Fialernar, og koma þeim ollum til samans fra þvi einu Horne og til þess annars,

29. Og þu skallt bwa Fialernar med Gulle, og giora þeirra Hringa af Gulle, ad stijnga Staungunum j þa. Þu skallt og bwa Steingurnar med Gull.

30. So skalltu uppreisa Tialldbwdena, epter þeirre Myndan sem þu saast a Fiallenu.

31. Þu skallt og giora eitt Fortialld af Gulu Silke, Skarlate, og Purpura, og Hvijtu tvinnudu Silke, þar uppa skalltu med hagleik giora Cherubim.

32. Og heingia þad a fiora Stolpa af Triam Setim, sem eru bwner med Gull, hafande Gullknappa, og fiorar Fætur af Silfre.

33. Og þu skallt festa Fortiallded til samans med Krookum, og setia Vitnisburdar Orkena fyrer innan Fortialldeð, So þad sie ydur einn adskilnadur, a millum þess Heilaga og þess Allra-Heilagasta.

34. Og þu skallt setia Moadarstolenn uppa Ork Vitnisburdarins inn j þad Allraheilagasta.

35. Enn Borded skalltu setia fyrer framann Fortialldeð, og Kiertastikuna, þvert yfer fra Bordenu, a þa Sydre Sijdu j Tialldbwdenne, enn Borded stande fyrer Nordan framm.

36. Þu skallt og giora eirn Dwk fyrer Dyrnar a Tialldbwdenne, ofenn med Gulu Silke, Purpura, Skarlate og Hvijtu tvinnudu Silke,

37. Og gior fimm gullega Stolpa til sama Dwks, af Triam Setim Gullbunum, med Gullknoppum, Og þu skallt steypa til þeirra fimm Kopar-fætur.

## XXVII. Capitule.

(I) Um Brenneforna Alltarid. (II) Um Gardinn kringum Tialldbwdena; (III) Þad Heilaga Vidsmior.

Þu skallt giora eitt Alltare af Triam Setim, fimm alna langt og breidt, jafnt a fiora Vegu, og þriggia aalna hautt.

2. Þu skallt og giora Horn uppa þeim ollum Fiorum Hyrningum Alltaresins, og sloa Hornenn med Kopar utann.

3. Gior og Katla ad laata j Oskuna, Sleifar, Munnlaugar, Matkroka, Elldponnur, oll þesse Verkfære skallt þu giora af Kopar.

4. Þu skallt og giora Kopargrind þar fyrer, so sem eitt Net, og gior fiora Koparhringa j þau fiogur Horn þar a.

5. Og þu skallt giora hana nedan umkring Alltared, ad Grindurnar take midt upp j Alltared.

6. Og þu skallt giora Steingur til Alltaresins, af Triam Setim, og sloa þær utan um med Messing. 7. Og

7. Og þu skallt stijnga Staungunum j Hringana, so ad Steingurnar meige vera a bœdar Sijdur vid Alltarid, ad bera þad med.

8. Þu skallt og giora þad af Fiolum so þad sie holt jnnann, so sem þier var sagt a Fiallenu.

II. 9. Þu skallt og giora eirn Gard um Tialldbwdena, þad skulu vera Langtiolld, af Hvijtu tvinnudu Silke, Hundrad alna langann ødrumeigenn a þa Sydre sijdu,

10. Og tuttugu Stolpa skalltu giora a tuttugu Koparfootum, og þeirra Knappa med Laufverk, af Silfre.

11. Þar skal og vera eitt Langtialld a Nyrdre sijdu, Hundrad alna langt, Tuttugu Stoolpar a tuttugu Kopar fotum, og þeirra Knappar med sijnu Laufverke af Silfre.

12. Enn a þeirre Vestare sijdu skal Gardsins breidd hafa eitt Tialld, Fimmtiju alna, med tiju Stolpum a tiju Footum.

13. Enn a þa Austur Sijdu skal Gardurenn vera Fimmtijer alna breidur,

14. So ad Langtiolldenn hafe fimmtan alner a þa eina Sijdu, þar til þria Stolpa a þremur Footum,

15. Og lijka fimmtan alna a þa adra Sijdu, þar til þria Stolpa a þremur Footum.

16. J Inngaungu Tiadbwdargardsins, skal vera einn Dwkur tuttugu alna breidur, saumadur med Gulu Silke, Skarlate og Purpura, og Hvijtu tvinnudu Silke, Og þar til fiorer Stolpar a sijnum fiorum Footum.

17. Aller stolparner j kringum Tialldbwdar gardenn skulu hafa Silfurhœnka, og Silfur Knappa, og Kopar Fætur.

18. Og Tialldbwdargardurinn skal vera hundrad œlna langur, og Fimtiju œlna breidur, og fimm œlna hœr, af hvijttvinnudu Silke. Og Fæturner skulu vera af Kopar.

19. Øll Tialldbwdarennar Verkfære, til allshœttadrar Þionustugiørdar, og aller hennar Naglar, og aller Tialldbwdargardsins hælar skulu vera af Kopar.

III. 20. Biod Jsraels Børnum, ad þeir bere þier þad allra skiærasta og klœrasta Vidsmior, sem þeir fœ af Vidsmiørs vidartriam, vel skieked, til ad lysa, so þad sie alltijd lœted j Lampana,

21. J Vitnisburdarbwdenne, fyrer framann Tiallded, þad sem hanger fyrer Vitnesburdenum. Og Aaron og hans Syner skulu tilreida þa fyrer DRottne, bæde Morgna og Kvølld, Og þad skal vera ein eylijf skickan hiœ ydur og ydar Epterkomendum, medal Jsraels Barna.

# XXVIII. Capitule.

### Kennemannlegur Skrude Aarons og hans Sona.

Og þu skalt taka þinn Broder Aaron, og hans Sonu til þijn, af Jsraels Børnum, ad hann sie minn Kiennemadur, sem er Aaron og hans Syner, Nadab, Abihu, Eleasar og Jthamar.

2. Og þu skallt giora Aaron þijnum Brodur Helgann Klædnad, sem vera skal vegsamlegur og prydelegur.

3. Og tala þu vid alla þa sem hafa eitt Vijsdoms Hiarta, hvoria eg hefe uppfyllt med Viisdoms Anda, ad þeir giøre Aarone Klæde til sinnar Vijgslu, ad hann sie minn Kiennemadur.

4 Þesse eru þau Klæde, sem þeir skulu giora, Brioststkiolld, Lyfkyrtil, Silkemøttul, Praungvann Kyrtil, Hofudklæde, og Bellte. Þennan Helgann Klædnad skulu þeir giora Aarone þijnum Brodur, og hans Sonum, so ad þeir sieu myner Kiennemenn.

5. Og þar til skulu þeir taka Gull, [illegible] Silke, Skarlat, Purpura, Hvijtt Silke.

6. Þeir skulu giora Lyffkyrtelinn af Gulle, Gulu Silke, Skarlate, Purpura, og hvijtu tvinnudu Silke, fagurlega,

7. So hann sie teingdur til samans a bœdum Oxlunum,, og so bindest til samans a Sijdunum.

8. Og Bellte þar utan yfer skal vera giört med þann sama hagleik og smijde, af Gulle, Gulu Silke, Skarlate, Purpura, og hvijtu tvinnudu Silke.

9. Þu skallt og taka tvo Onyx steina, og grafa Nofn Israelis Barna a þeim.

10. Sex Nofn a hvorium, epter þeirra Alldre.

11. Og laata Steinsmijdara, þa sem Innsigle grafa, giora þad, og greypa þa j Gull allt um kring.

12. Og þu skallt festa þa uppa Axlernar a Lijfkyrtlenum, ad þeir Steinar sieu til einnar Minningar fyrer Israels Bornum. Aaron bere þeirra Nofn uppa baadum sijnum Oxlum, fyrer DRottni til minningar.

13. Þu skallt og giora Gullspeingur,

14. Og tvær Kediur af klaaru Gulle, so ad hvor hringur hange j odrum, og þær skalltu festa j Spangernar.

15 Þu skallt og giora Embættesins Briostskiolldinn kostulega, so sem Lijfkyrtelinn, af Gulle, gulu Silke, Skarlate, Purpura, og tvinnudu hvijtu Silke.

16. Hann skal vera ferskeittur og tvofalldur, eirnrar Spannar a leingd, og so lijka eirnrar a Breidd.

17. Hann skalltu setia allann samann med fiorum rodum Steina. Og j firstu Rodenne skal vera Sardus, Topaser, og Smaragdus.

18. J annare Rodenne, Rubin, Saphirus, Demant.

19. J þeirre þridiu, Lyncurer, Achat, og Amethistus.

20. J þeirre fiordu, einn Turckis, Onyx, Jaspis. Þeir skulu vera greypter j Gull j ollum Rodunum,

21. Og þeir skulu standa epter tolf Israelis Barna Nofnum, utgrafner af Steinsmijdaranum, hvor epter sijnu Nafne, epter þeim tolf Kinkvijslum.

22. Þu skallt og giora Hleckiafeste til Briostskiolldsins, med tveimur Endum, og lykia hvorn j annann, af klaaru Gulle.

23. Og tvo Gullhringa a Briostskiolldenn, so ad þu fester þa samann, tvo hringa til þeirra tveggia Horna a Briostskylldenum.

24. Og set þar tvær Gullkediur j þa somu tvo Hringa til þeirra tveggia Horna a Briostskylldenum.

25. Enn þa hina tvo enda af þeim tveimur Kedinm skalltu setia j þær tvær Speingur, og festa þær j Axlernar a Lijfkyrtlenum, hvorn yfer fra odrum.

26. Og þu skallt giora tvo adra Gullhringa, og festa þa j þau onnur tvo Horn, a Briostskylldenum, hvorn j sijnum stad, innan til mots vid Lijfkyrtelinn.

27. So skalltu giora tvo Gullhringa og festa þa a bæde Hornenn nedann til Lijfkyrtilsins, hvorn moot odrum, þar sem Lijfkyrtellenn kemur til samans, ofan a Lijfkyrtilenn, med meistara-hagleik,

28. So skal Mann knyta Briostskiolldenn med sijnum Hringum, j Hringana a Lijfkyrtlenum, med eirnre gulre Snooru, so þad sie fest vid Lijfkyrtelenn, sem er kostulega giordur, so ad Briostskiolldurenn sie ecke laus vid Lijfkyrtelenn.

29. So skal Aaron bera Israels barna Nofn j Embættesins Briostskylldenum, a sijnu Brioste, þegar hann geingur j Helgedomenn, alltiid til eirnrar Minningar fyrer DRottni.

30. Þu skallt og setia j Embættisins Briostskiolldenn, (a) Liosed og Riettenn, so þad sie a Aarons Brioste, þegar hann kiemur jnn fyrer DRottinn, ad hann æ og alltijd bere Israels Barna Embætte a sijnu Brioste fyrer DRottne.

a) (Urim) Hvad þad hefur verid, vita menn ecke.

31. Þu skallt giora einn Silkekyrtil, under Lijfkyrtlenum, allannsamann af gulu Silke.

32. Og skal vera eitt Hoalsmaal a honum midium, og falldad med einum Borda, so þad rifne ecke.

33. Og nedanverdt a Falldenum skalltu giora so sem Granata-Eple allt umkring, af Gulu Silke, Skarlate, Purpura, og Gullbiollur millum þeirra, so riett umkring,

34. So

34. So ad þar sie ein Gullbialla, og eitt Granata Eple, og aptur ein Gullbialla og Granata Eple, allt j kring, um Falldenn a sama Silkekyrtle.

35. Þessum Kyrtle skal Aaron skrydast, þa hann embættar, so ad menn meige heyra hliomenn þar af, þegar hann geingur vt og jnn j Helgedomenn fyrer DRottinn, ad hann skule ecke deya.

36. Þu skallt og giora eina Ennisspaung af kloaru Gulle, og vtgrafed DROttins HELGEDOMUR þar a, sem menn vtgrafa Jnsigle.

37. Pad skalltu festa framann a Hattenn, med einum Gulum Silke Dreigle, yfer Aarons Enne,

38. So skal Aaron bera Misgiorder þess helgada, sem Jsraels Børn heilagt giora med øllum þeirra Gaafum, og þad skal alltijd vera yfer hans Enne, til ad forlijka þa fyrer DRottni.

39. Þu skallt og giora einn mioann Kyrtel af hvijtu Silke, og einn Hatt af hvijtu Silke, og stoangad Bellte.

40. Þu skallt og giora Aarons Sonum Kyrtla, og Bellte, og Mijtur, Vegsamleg og fogur.

41. Og færa Aaron þinn Brodur og hans Syne þar j, og smyria þa, og (b) fylla þeirra Hendur, og vijgia þa til ad vera mijner Kiennemenn.

(b) (Fylla) j vijgslunne voru Prestanna hendur uppfylltar med Offur fyrer DROTTne.

42. Þu skallt og giora þeim Lijnbrækur af Lijne, fra Lendunum og til Knesbootar, ad hylia þeirra Blygdanar holld med.

43. Þær skal Aaron og hans Syner hafa, þa þeir ganga jnn j Tialldbwod Vitnisburdarins, edur til Alltarisins, ad þiona j Helgedomenum, so ad þeir bere eige sijna Misgiorninga, og deye. Þetta skal vera honum og hans Sæde epter hann ein eylijf Skickan.

## XXIX. Capitule.

Vijgsla Prestanna og þeirra Offur.

Þetta er þad sem þu skallt giora þeim, so þeir sieu vijgder mier til Kiennemanna, Tak einn unganN Uxa, og tvo Hrwta sem ad eru Vammalauser,

2. Og Osyrt Braud, og Osyrdar Kokur blandadar med Vidsmior, og Osyrda Leyfa smurda med Vidsmiore, þetta allt samann skalltu giora af Hveitemiele,

3. Og leggia þad j eina Korf, og bera þad framm j Korfenne, og Uxann, og þa tvo Hrwtana.

4. So skalltu leida Aaron, og hans Syne, fyrer Dyrnar Samkundu Tialldbwodarennar, og þvo þeim j Vatne.

5. Og taka Klædinn, og færa Aaron j þann mioa Kyrtil, og j þann Silke Kyrtel, og j Lijfkyrtelenn, med Briostskylldenum til Lijfkyrtelsins. Og þu skallt gyrda hann utann a Lijfkyrtelinn.

6. Og setia Hattinn a hans Hofud, og setia þa heilogu Koronu upp a Hattinn.

7. Sijdann skalltu taka þad Smurningar Oleum, og hella þvi a hans Hofud, og smyria hann.

8. So skalltu og leida hans Sonu hier til, og færa þa j þa miou Kyrtla,

9. Og gyrda þa og Aaron med Lindum, og setia Hwfur uppa þa, so þeir skulu hafa Prestdæmid, til eylijfrar Skickunar. Þu skallt og fylla Aarons Hendur og hans Sona,

10. Og leida þann unga Uxann fyrer Samkundu-Tialldbwodena. Og Aaron og hans Syner skulu leggia sijnar Hendur yfer Hofud Uxans,

11. Og sloatra Uxanum fyrer DROttni, fyrer Dyrum Samkundu-Tialldbwodarennar.

12. So skalltu taka af hans Bloode, og smyria a Hornenn Alltaresins med þijnum Fingre, enn allt annad Blood skalltu nidur hella fyrer Alltaresins Foot.

13. Og þu skallt taka alla þa Feite, sem utann um Jnnyflenn er, og Lifrar netiuna,

og bæde Nyrunn og Nyrna Morinn, og þu skallt upptendra þad a Alltarenu.

14. Enn Kisted, Hvodena, og Ohreinendenn Uxans skallt þu uppbrenna med Ellde, fyrer utann Herbvodernar, þvi þad er eitt Synda Offur.

15. Enn annann Hrvotenn sk lltu taka, og Aaron og hans Syner skulu leggia sijnar Hendur yfer hans Hofud.

16. Sijdann skalltu sloatra honum, og taka hans Blod, og stockva þvi allt j kring a Alltarid.

17. Enn Hrvotenn skalltu hoggva j stycke, so skalltu þvo hans Innisle og hans Fætur, og leggia þau a styckinn, og a hans Hofud,

18. Og brenna so Hrvotenn allann saman a Alltarenu, þvi þad er ein Brenneforn fyrer DROTtne, einn Sætleiks Ilmur, og DROTtins Elldur. (a)

(a) DROTTins Elldur, þad Ord tijdkar Moses opt, og skulum vier kannast vid, ad þad merker so mikid sem DRottins Offur, so sem þegar Þu sier einn Elld aleingdar, og spyr Hvad þad sie, og annar svarar, ad þad sie Gllds Elldur, Pad er, ad Madur offre GUDE þvi.

19. Enn þann annann Hrvot skalltu taka, og Aaron og hans Syner skulu leggia sijnar Hendur yfer hans Hofud,

20. Og þu skallt sloatra honum, og taka hans Blood, og rijda þvi a hægra Eyrnasnepel Aarons, og hans Sona, og a þeirra hægra Þumalfingur, og a þeirra hægre Þumaltoa. Og þu skallt stockva Bloodenu riett umkring a Alltarenu.

21. Og þu skallt taka þad Bloded a Alltarenu, og þad Smurningar Oleum, og stockva þvi yfer Aaron og hans Klæde, hans Syne og þeirra Klæde, so verdur hann og hans Klæde, hans Syner og þeirra Klæde vijgd.

22. Sijdann skalltu taka Feitena af Hrvotunum, og Roouna, þad feita um Innyflenn, Lifrarnetiuna, og bæde Nyrunn med Nyrna mornum þar umkring, og hægra Bogenn (þvi þad er Fyllingar Hrvotur).

23. Og eitt Braud, og eina Oleu Koku, og eiun Leif, vr þeirre Korf sem stendur fyrer DROTTne, med Osyrdu Braude.

24. Og legg þad allt a Aarons og hans Sona Hendur, og veyfa þvi fyrer DRottne.

25. Og tak þad sijdann af þeirra Hondum, og upptendra þad a Alltarenu, til eins Brenne-Offurs, til eins sæts Ilms fyrer DROTtni, þvi þad er Elldur DROTTINS.

26. Og þu skallt taka Bringuna af Aarons Uppfyllingar Hrvot, og þu skallt veyfa þvi fyrer DRottni. Pad skal vera þinn Partur.

27. Þu skallt og so helga Veyfunarbriosted og Upplyptingarboogenn,

28. Sem er veyfud og upplypt af Aarons og hans Sona Fyllings-Hrvot, og þad skal Aaron eignast og hans Syner, fyrer eina eylijfa Skickan, af Israels Bornum, þvi þad er eitt Upplyptingar Offur. Enn Upplyptingar Offred skal heyra DRottne til, af Israels Bornum, j þeirra Packlætis Offre, og Upplyptingar Offre.

29. Enn þau helgu Klæde sem Aaron hefur, þau skulu hans Syner hafa epter hann, ad þeir sieu smurder j þeim, og þeirra Hendur uppfylltar. Hvor af hans Sonum sem verdur Prestur i hans Stad,

30. Hann skal iklædast þeim j Sio Daga, ad hann gange inn j Samkundu Tialldbvodena, til ad þiona j Helgedomenum.

31 Þu skallt og taka Fyllingar Hrvotenn, og matgiora hans Kiot a einum heilogum Stad.

32. Og Aaron og hans Syner skulu eta þad sama Hrvots Kiot, med þvi Braude sem er j Korfenne, fyrer Samkundu Tialldbvodardyrum,

33. Þvi þar med er Forlijkunenn ordenn, ad fylla þeirra Hendur, so þeir sieu vijgder. Eingenn annarlegur skal eta þad, þvi þad er Heilagt.

34. Enn ef nockud leyfest af sama Uppfyllingar

lingar Kiøte, og af Braudenu, jnn til Morguns, þa skalltu þad brenna med Ellde, og ecke lǽta þad etast, þvi þad er Heilagt.

35. Og þu skallt so giøra vid Aaron og hans Sonu, j allann mǽta, lijka sem eg hefe bijfalad þier. Þu skallt fylla þeirra Hendur j Sio Daga.

36. Og slǽtra hvorn Dag einum Uxa til Syndaoffurs, til Forlijkunar. Þu skallt (b) hreinsa Alltared, þa þu giører soddann Forlijkan þar yfer, og smyria þad, ad þad verde vijgt.

(b) (Hreinsa) þad er, ad afleysa, so sem 51. Psal. 9. Hreinsa og afleys mig med Ysopo. Matth. 23, 18.

37. Sio Daga skalltu giøra þessa Forlijkan yfer Alltared, og vijgia þad, ad þad sie eitt Alltare þess Allra Heilagasta, og hver sem snerter Alltared hann skal verda helgadur.

38. Og þetta skalltu giøra vid Alltarid, þu skallt ætijd hvorn Dag Fornfæra þar a Tvø Lomb veturgømul,

39. Eitt Lamb ad Morgne, og þad annad ad Kvøllde.

40. Og til eins Lambs legg þu Tijunda Part Hveitis Salla blandad vid stieted Oleum, Fiorda Part af Hin, og einn Fiorda Part (c) Hin Vijns, til Dryckiaroffurs.

(c) (Hin) er roeknd meira enn halfur Mæler:

41. Þu skallt giøra lijka so med þad annad Lambed ad Kvøllde, so sem vid Matoffur og Dryckiaroffur um Morgunenn, til eins Sætleiks Ilms, eirn Elld fyrer Drottne.

42. Þetta er þad daglega Brenneoffur hia ydar Epterkomendum, fyrer Samkundunnar Tialldbuǽdardyrum, fyrer Drottne, þar sem eg vil vitna fyrer ydur, og tala vid þig.

43. Þar vil eg þeckiast af Israels Børnum, og helgast j minne Dyrd.

44. Og eg vil helga giøra Samkundu-Tialldbuǽdena, og Alltared, og eg vil vijgia Aaron og hans Sonu mier til Kiennemanna,

45. Og eg vil buǽa a medal Israels Barna, og vera þeirra GUD,

46. So þeir vite, ad eg er DROTTinn þeirra GUD, sem leidde þa af Egyptalande, ad eg by a medal þeirra, Eg DROTTinn þeirra GUD.

## XXX. Capitule.

(I) Um Reyk-Alltared; (II) Ǽlogur til Peninga greidslu; (III) Vatnskier; (IV) Smurningar Oleum; (V) þad Heilaga Reykelse.

I. Þu skallt giøra eitt (a) Reyk-Alltare, til ad brenna Reykelse uppa, af Triǽam Setim,

(a) Þetta Alltare stood utann fyrer Fortialldenu, j þvi Heilaga, enn ecke fyrer jnnann Fortialldid j þvi Allra Heilagasta.

2. Eirnrar Alnar langt og breidt, riett Ferskeytt, og tveggia Alna hǽatt med sijnum Hornum.

3. Og þad skalltu buǽa utann med skǽart Gull ofann til, og a Sijdunum allt umkring, og Hornenn med. Þu skallt og giøra eina Koronu af Gulle j kringum þad,

4. Og Tvo Gullhringa a baadar Sijdur, under Koronunne, so menn meige setia Steingurnar þar j, ad bera þad med.

5. Þu skallt og giøra Steingurnar af Triǽam Setim, og buǽa þær med Gull.

6. Þad skalltu setia fyrer framann Fortialldid, sem hanger fyrer Vitnisburdar Orkenne, og fyrer þeim Nǽadarstol sem er a Vitnisburdenum, hvadann eg vil vitna fyrer þier.

7. Og a þessu Alltare skal Aaron hvorn Morgun tendra Ilmande Reykelse, þa hann tilreider Lampana.

8. Somuleidis a Kvølldenn, þa hann tendrar Lampana, skal hann og reykia slijku Reykelse. Þetta skal vera daglegt Reykelse fyrer DROTTNI, hia ydar Epterkomendum.

9. Þier skulud eckert annarlegt Reykelse giøra þar uppa, og ei helldur offra þar uppa Brenneoffre, Matoffre, eda Dryckiaroffre.

10. Og Aaron skal eitt sinn um ǽared giøra

 eina

eina Forlijkun a Hornum Alltaresins med Synda Offurs Bloode, til Forlijkunar, þesse Forlijkun skal skie eitt sinn hvort aar hiaa ydar Epterkomendum, þvi þad er DRottni þad Allra-Helgasta.

II. 11. Og Drottiñ talade vid Mosen, og sagde,

12. Þa þu telur Israels Barna Hofud, þa skal hvor giefa DRottne sinnar Saalar Forlijkun, so ad þar skule eingenn Plaaga koma a þa, þegar þeir eru talder.

13. Og hvor sem j tølunne er, hann skal giefa einn halfann Sikel, (b) epter Helgedomsins Sikle. Einn Sikell gillder tuttugu Gera, soddan halfur Sikell skal vera Herrans Upplyptingar offur.

(b) Halfur Siclis er Ort af Gyllene, edur Fiorde Partur ur Eyrer Silfurs.

14. Enn hvor sem er j Tølunne Tvitugur og þadan af elldre, hann skal giefa DRottne soddan Upplyptingar offur.

15. Sa hinn Rijke skal ecke giefa meira, og sa Faatæke ecke minna enn halfann Sikel, sem hann giefur DRottne til Upplyptingar, fyrer þeirra Saalna Forlijkan.

16. Og þu skallt taka soddann Forlijkunar Peninga af Israels Børnum, og leggia til Guds Pionustu j Samkundu Budena, ad þad sie Israels Børnum ein Minning fyrer DRottne, ad hann laate sig forlijka yfer þeirra Saalum.

III. 17. Og DRottenn talade vid Mosen, og sagde,

18. Þu skallt og giøra eitt Vatnskier af Kopar, med einum Koparfæte, til ad þvo sig vr. Og þad skalltu setia millum Samkundu-Budarennar og Alltaresins, og laata Vatn þar vti,

19. So ad Aaron og hans Syner meige þvo sijnar Hendur og Fætur þar af,

20. Þa þeir ganga jnn j Samkundubudena, eda til Alltaris, ad þiona med Reykelse, sem er Elldur fyrer DRottne, so ad þeir deye ecke.

21 Þad skal vera ein eylijf skickan, honum og hans Sæde, hiaa þeirra Epterkomendum.

IV. 22. Og Drottiñ talade vid Mosen og sagde,

23. Tak til þijn þær bestu Jurter, þa skiærustu Myrrhu, Fimmhundrud Siclos (ad vikt) og hvalfpart so miked af Cinnamominum, tvo Hundrud og Fimmtiju (Siclos) og Calmus tvo hundrud og Fimmtiju,

24. Og Fimmhundrud Casien, epter vikt Helgedomsins Sikels, og eitt Hin Vidsmiørs, af Vidsmiørs trie,

25. Og giør eitt heilagt Smurningar Oleum, epter Smyrslamakarans Kunnattu.

26. Þar med skalltu smyria Samkundu Tialldbudena, og Vitnisburdar Ørkena,

27. Borded og øll þess Kier, Klertastikuna med þvi sem henne til heyrer, Reykelses Alltared,

28. Brenneoffurs Alltared med øllum sijnum umbunade, og Vatnskiered med sijnum Fæte.

29. Og þu skallt vijgia þad so, ad þad sie þad Allra-Helgasta, þvi sa sem vill snerta þetta, hann skal verda vijgdur.

30. Þu skallt og smyria Aaron og hans Sonu, og vijgia mier þa til Kiennemanna.

31. Og þu skallt tala vid Israels Børn, og seigia, þetta Oleum skal mier vera eitt Heilagt Smyrsl, hiaa ydar Epterkomendum.

32. Þvi skal ecke vera vthellt a Mannsins Lijkama, eige skulud þier helldur giøra soddann, þvi þad er heilagt, þar fyrer skal þad og vera ydur heilagt.

33. Hvor hellst sem giørir soddann, edur giefur ødrum nockud þar af, hann skal verda afmaadur fra sijnu Folke.

V. 34. Og Drottinn sagde til Mosen, Tak til þijn Jurter, Balsamum, Stacten, Galben, og klaara Myrrhu jafnmiked af hvoriu,

35. Og giør Reykelse þaraf, epter Smyrslamakarans kunnattu blandad, ad þad blijfe hreint og heilagt.

36. Og þu skallt melia þad j smaatt, og leggia þad fyrer Vitnisburdenn, j Samkundu Tialldbudenne, hvadann eg mune vitna fyrer þier, þad skal vera ydur þad Allrahelgasta.

37. Þier

37. Þier skulud ecke giora ydur soddann Reykelse, helldur skal þetta vera þier heilagt fyrer DROTTni.

38. Hvor, sem giører þetta, til ad hafa hiaa sier slijkann Ilm, hann skal afmaast fra sijnu Folke.

## XXXI. Capitule.

(I) Meistarar utvalder til ad giøra Smijslegt; (II) Helgehalld Sabbathsins.

I. DROTTinn mællte vid Mosen og sagde, Siaa,

2. Eg hefe kallad Bezaleel, Son Uri, Sonar Hur, af ætt Juda, med Nafne,

3. Og hef uppfyllt hann med GUDs Anda, med Vijsdome og Skilninge, og Hagleik j allrahanda Smijde,

4. Meistarlega ad erfida j Gulle, Silfre, Kopar,

5. Kostulega ad vtgrafa, og innsetia Steina, og kostulega ad smijda vr trie, og ad smijda allrahanda Smijde,

6 Og Siaa, Eg hefe feinged honum Fielaga Ahaliab, Son Ahisamach af ætt Dan, og eg hefe giefed þeim allshaattadann Vijsdom j þeirra Hiortu, ad þeir skulu smijda allt þad sem eg hefe boded þier,

7. Samkundu-Tialldbuudena, Vitnisburdar-Orkena, Naadarstolenn þar uppa, og allann umbuunad Tialldbuudarennar,

8. Borded med þeim Buunade sem þar til heyrer, þa føgru Kiertestiku med sijnum ølum Verkfærum, Reyk-alltared,

9. Brenneførnar Alltarid med øllum sijnum Buunade, Vatnkiered og þess Foot,

10. Embættis Klædinn, og Aarons Kiennemanns Helgu Klæde, og hans Sona Klæde til Prestembættesins.

11. Smurningaroleum, og Reykelse af Jurtunum til Helgedomsins. Allt þad sem eg hefe bifalad þier, þad skulu þeir giora.

II. 12. Og DROTTINN talade vid Mosen og sagde,

13. Tala til Jsraels Barna, og seigdu til þeirra, Hallded minn Hvottdag, þviad þad sama er eitt Teikn, millum mijn og ydar, og ydra Epterkomenda, so þier skulud vita, ad eg er DROttinn sem ydur giører Heilaga.

14. Þar fyrer hallded minn Sabbaths Dag, þvi hann skal vera ydur helgur. Hvør sem vanhelgar hann, skal vissulega deya. Þvi hvør sem giører nockud erfide a honum, hans Saal skal afmaast fra sijnu Folke.

15. Sex Daga skulu Menn erfida, enn Siounde Dagur er Sabbaths Dagur, DROttins Heilog Hvijld. Hvør sem giører nockud Erfide a Sabbaths Deige hann skal vissulega deya.

16. Þarfyrer skulu Jsraels Børn hallda Sabbaths Dagenn, ad þau, og hiaa þeirra Epterkomendum hallde hann til eins eylijfs Saattmaala.

17. Hann er eitt Eylijft Teikn millum mijn og Jsraels Barna, þvi DROTTINN skapade Himen og Jord a sex Døgum, enn a þeim Siounda Deige hvijldest hann, og endurnærde sig.

18. Og sem DROTTINN hafde endad þessar rædur vid Mosen, a Sinai Fialle, gaf hann honum Tvær Vitnisburdar Toblur, þær voru af Steine, og skrifadar med GUDs Fingre.

## XXXII. Capitule.

Straff vegna Gullkalfsins.

Enn þegar Folked saa, ad Moses dvalde ad koma af Fiallenu, søfnudust þeir samann moot Aaron, og sogdu til hans, Statt upp, og giør* oss GUde, sem gange fyrer oss, þvi vier vitum ecke hvad af þeim Manne Mose er orded, sem leidde oss af Egyptalande.

* Giørnb. B: Post: 7, 40.

2. Aaron sagde til þeirra, Taked Eirnagulled ydvara Kvenna, Sona og Dætra, og bered þad hingad til mijn.

3. So reif allt Folked Eyrna Gulled af þeirra Eyrum, og bar þad til Aarons.

4. Og hann medtok þad af þeirra Hondum, og uppkastade med einum Stijl, og giørde einn steyptann Kalf. Og þeir sogdu, Jsrael! þesser eru þijner Gudder, sem færdu þig af Egyptalande.

5. Þa Aaron sa þad, biggde hann eitt Alltare fyrer honum, og liet uthroopa og seigia, a Morgun er DROttins Hatijd.

6. Og þeir stodu snemma upp um Morgunenn, og offrudu Brenneforner, og logdu til Packlætisfoorner. Epter þad * sette Folked sig nidur ad eta og drecka, og stod so upp ad dansa. *1 Cor. 10, 7.

7. Þa sagde DROttinn til Mosen, Gack, og far ofann, þvi þitt Folk, þad þu leidder af Egyptalande hefur fordiarfad (sinn Veg.)

8. Þeir eru snart vikner af þeim Vege sem eg baud þeim, þeir hafa giort sier eirn steyptann Kalf, og hafa tilbeded hann og offrad honum, og sagt, Jsrael! þesser eru þijner Gudder, sem leiddu þig af Egyptalande.

9. Og DROTtinn sagde til Mosen, Eg sie ad þetta Folk er Hardsvijrad Folk,

10. Lat mig nu rada, so mijn Reide meige gremiast þeim, og svelgia þa, so vil eg giora þig til eins mikels Folks.

11. So bad Moses fyrer DROTTni sijnum Gude, og sagde, DROTTinn! þvi vill þijn Grimmd reidast þijnu Folke, sem þu utleidder af Egyptalande, med miklum Krapte og stirkre Hende?

12. Hvar fyrer skulu Egyptarner tala og seigia? Hann hefur utleidt þa þeim til Olucku, so ad hann dræpe þa a Fiollum uppe, og afmade þa af Jordunne. Snu þier fra þinne Grimmre Reide, og vert nadugur yfer Vondskap þijns Folks.

13. Lat þier j Hug koma þijna Þienara, Abraham, Jsaac og Jsrael, hvorium þu hefur svared vid þig sialfann, og fyrerheited þeim, Eg vil so margfallda ydart Sæde sem Stiornur a Himnenum, og allt þetta Land sem eg hefe lofad, vil eg giefa, ydru Sæde, og þeir skulu þad eignast æfennlega.

14. So jdradest þa DROTTinn þess hins Vonda, sem hann hafde hotad ad giora sijnu Foolke.

15. Moses snere sier, og gieck ofann af Fiallenu, og hafde Tvær Vitnisburdar Toblur j sinne Hende, þær voru skrifadar a bada Sijdur.

16. Og Gud sialfur hafde giort þær, og sialfur grafed Skriftena a þeim,

17. Sem nu ad Josua heyrde Folksins Hroop og Þys, þa sagde hann til Mose, þar er eitt Hroop j Herbudonum, lijka sem j Bardaga.

18. Hann svarade, þar er ecke Oop so sem þeirra ed falla, edur sa Sigur, Helldur heyre eg Rodd kvedanda Dans.

19. Og er Moses nalgadest til Herbudanna, og sa Kalfenn og Dansenn, þa reiddest hann akaflega, og kastade Toblonum af Hende, og braut þær j sundur, under Fiallenu.

20. Sijdann tok hann Kalfenn, sem þeir hofdu giort, og brennde hann j Ellde, giorde hann ad Osku, og kastade henne j Vatn, og gaf Jsraels Bornum þad ad drecka.

21. Og hann sagde til Aarons, Hvad hefur þetta Folk giort þier, ad þu leidder so stora Synd yfer þad?

22. Aaron svarade, Minn Herra, reidst ecke, þu veitst ad þetta Folk er jllt.

23. Þeir sogdu til mijn, Gior oss Gude, sem gange fyrer oss, þvi vier vitum ecke hvad orded er af þessum manne Mose, sem oss utleidde af Egyptalande.

24. Þa sagde eg til þeirra, Hvor sem hefur Gull, hann rijfe þad af, og fae mier þad. Og eg kastade þvi j Elldenn, so vard þesse Kalfur þar af.

25. Sem Moses nu sa, ad Folked vard orded laust (þviad Aaron hafde giort þad laust, til Hneikingar a medal Ovinanna).

26. Þa gieck hann framm j Herbuda Hlidid,

Hlidid, og sagde, Ef nockur er Gllds, hann kome hingad til mijn. Þa sofnuduſt øll Levi Born til hans.

27. Og hann ſagde til þeirra, ſo ſeiger DROTTinn Iſraels Gud, Hvor einn binde ſitt Sverd vid ſijdu, og gange j giegnum Herbuderner, framm og aptur, fra einu Hlide til annars, og hvor ſlae ſinn Broder, Vin og Naunga jhel.

28. Levi Born giordu ſem Moſes hafde ſagt þeim. Og þar fiell a þeim Deige, þriar Þuſunder Manns af Folkenu.

29. Þa ſagde Moſes, (a) Fylled ydar Hendur j Dag fyrer DROTTne, hvor einn a ſijnum Syne, og Brodur, ſo þar giefeſt Bleſſan yfer ydur j Dag.

(a) Helged.

30. Annars Dags þar epter ſagde Moſes til Folkſins, Þier hafed giort eina ſtoora Synd, eg vil nu uppfara til DROTtins, ef ſkie mætte eg giæte forlijkt ydar Synd.

31. Og ſem Moſes kom aptur til Drottins, ſagde hann, Þetta Folk hefur framed eina ſtoora Synd, og giort ſier Gude af Gulle,

32. Fyrergief þeim nu þeirra Synd, enn vilier þu þad ecke, þa afmaa þu mig og af þinne Bok, ſem þu hefur ſkrifad.

33. DROTTINN ſagde til Moſen, Hvad? Eg vil afmaa þann af minne Bok, ſem ſyndgaſt a moote mier

34. Far þu nu, og leid Folked þangad, ſem eg ſagde þier, Sia, Minn Eingell ſkal fara fyrer þier. Eg vil vitia þeirra Synda, þa minn Vitiunar-Tijme kiemur.

35. So ſtraffade DROTTINN Folked, vegna Kalfſins, hvorn Aaron hafde giort.

## XXXIII. Capitule.

(I) Moſes bidur fyrer Folkenu; (II) og oſkar ad mega ſia Dijrd DRottens.

1. Og DROTTinn ſagde til Moſen, Far og ferdaſt hiedann, þu og Folked þad þu leidder af Egyptalande, til þeſs Lands ſem eg ſoor Abraham, Iſaac og Jacob, ſeigiande, Eg vil giefa þijnu Sæde þad.

2. Eg vil ſenda einn Eingel fyrer þier, og utryma þa Cananeos, Amorreos, Hetheos, Phereſeos, Heveos, og Jebuſeos,

3. I þad Land ſem Miolk og Hunang flytur j. Eg vil ecke fara upp þangad med þier, þvi þu ert hardſuijradur Lydur, ſo eg mætte fortæra þier a Veigenum.

4. Þa Folked heyrde þeſſe vond Ord, griet þad, og eingenn bar ſijna Pryde a ſier.

5 Og DRottinn ſagde til Moſen, Seigdu Iſraels Bornum, Þier erud eitt hardhnackad Folk, Eg kiem einuſinne hraadlega yfer þig, og eydelegg þig, legg nu þitt Skart af þier, ſo eg meige vita hvad eg ſkal giora þier.

6. So løgdu Iſraels Born þeirra Skart af ſier, hia þvi Fiallenu Horeb.

7. Enn Moſes tok Tialldbudena, og reiſte hana upp, langt ut fra Herbudunum, og kallade hana Samkundutialldbud. Og hvor ſa Madur ſem villde adſpyria DRottinn, hann hlaut ad fara ut til Samkundubudarennar, ut fyrer Herbuderner.

8. Og þa Moſes gieck ut til Budarennar, þa ſtood allt Folked upp, og hvor gieck ut j ſijnar Tialldbyr, og þeir litu og (a) bak honum, þar til hann kom inn j Tialldbudena.

(a) (Bak) Bak Moſes lyta aller Verkheilager, þeir ecke ſkilia Løgmaaled, þeir lyta þad ecke under Augun.

9. Og þa Moſes kom j Tialldbudena, þa kom Skijſtolpenn nidur, og ſtood j Tialldbudardyrunum, og talade vid Moſen.

10. Og allt Folked ſa ad Skijſtolpenn ſtood j Tialldbudarennar Dyrum, og hvor j ſijnum Tialld-dyrum ſtood upp og hneigde ſig.

11. Enn DROTTinn talade vid Moſen, Andlite til Andlits, lijka ſem einn Madur tatar vid ſinn Vin. Og þa hann gieck aptur til Herbudanna, þa veik hans unge Þienare Joſua Sonur Nun hvorge af Tialldbudenne. 12. Og

12. Og Moses sagde til DROTTins, Sioa, þu seiger til mijn, Leid þu Folked upp þangad, og þu lætur mig ecke vita hvørn þu villt senda med mier. Þar þu hefur þo sagt til mijn, Eg þecke þig med Nafne, og þu hefur funded Naad fyrer mijnum Augum.

13. Hafe eg nu funded Naad fyrer þijnum Augum, þa vijsa mier þinn Veg, hvar med eg kann ad þeckia þig, og finna Naad fyrer þijnum Augum, og sioa þu, ad þetta Folk er þinn Lydur.

14. Hann sagde, Mitt (b) Andlit skal fara, þar med vil eg vijsa þier Veg.

(b) (Andlit) Merker hier Skijed og Elldstolpann, j hvørium Gud var nærlægur.

15. Enn hann sagde til hans, Ef þitt Andlit fer ei, þa leid oss ei ur þessum Stad upp þaangad.

16. Þvi hvørnenn eigum vier ella vita, ad eg og þitt Folk hafe funded Naad fyrer þijnum Augum, utan þad þu farer med oss? So ad eg og þitt Folk meigum prijsast, fyrer øllu Folke a Jordunne.

17. Þa sagde DROTTinn til Mosen, Eg vil giøra þad sem þu nu mællter, þvi þu hefur funded Naad fyrer mijnum Augum, og Eg þecke þig med Nafne.

II. 18. Enn hann sagde, Þa laat mig sioa þijna Dyrd.

19. Og hann sagde, Eg vil laata allann minn gooda framm fara fyrer þijnu Andlite, og eg vil laata predika DRottins Nafn fyrer þier. * Enn hvørium sem eg er Naadugur, þeim er eg Naadugur, og hvørium eg er Miskunsamur, þeim er eg Miskunsamur.

* Rom. 9, 15.

20. Og hann sagde framarmeir, Ecke maattu sioa mitt (c) Andlit, þviad Eingenn Manneskia mun lifa sem mig sier.

(c) (Andlit) Hier merker Andlit ecke Skijstoolpann, helldur Gud sialfann.

21. Og DRottinn sagde enn framar, Sioa, hier er eitt Noom hioa mier, þar skalltu standa uppa Steinenum,

22. Þa mijn Dyrd geingur nu framm hioa, þa vil eg laata þig standa j Biargskorunne, og mijn Hond skal hlijfa þier, A medan eg geing framm hioa.

23. Og þa eg tek mijna Hønd fra þier, þa skalltu sioa a bak epter mier, Enn mitt Andlit fær eingenn Madur sied.

# XXXIV. Capitule.

(I) Nyar Løgmaals Toblur; (II) Guds Saattmaale. (III) Moses Liomande Andlit.

I. Og DRottinn sagde til Mosen, Høgg þier Tvær Steintoblur, sem þær enn fyrre voru, so ad eg skrife þau Ord, sem voru a þeim fyrre Toblunum, hvoriar þu brautst j sundur,

2. Og vert buenn a Morgun, so þu stijger aarla uppa Sinai Fiall, og gack þar til mijn efst uppa Fialled,

3. Og laat øngvann fara upp med þier, og ad eingenn verde sien hier j nockud Fiallenu, Og ad hvørke Naut nie Sauder fædest giegnt þessu Fialle.

4. Og Moses hioo Tvær Steintoblur so sem hinar fyrre voru, og stod snemma upp um Morguneñ, og gieck uppa Sinai Fiall, sem Drottinn hafde boded honum, og tok þær Tvær Steintoblur j sijna hønd.

5. Þa kom DROTTinn nidur j einu Skije, og stood hioa honum, og predikade vt af DROTTins Nafne.

6. Og þa DROTTinn gieck framm fyrer hans Andlit, kallade hann, DROTTinn, DROTTinn, Miskunsamur Gud og Naadugur, og Þolinnmodur, og miog Lijknsamur og Trwr,

7. Þu sem audsyner Miskun j Þusund Lidu, og fyrergiefur Misgiørdernar, Naanglætid og Syndernar, Og fyrer hvørium Eingenn er saklaus, Þu sem vitiar Naanglætis Fedranna a Børnunum og Barnabørnonum, jnn til þridia og fiorda Lids.

8. Og Moses fiell strax nidur til Jardar, og tilbad hann,

9. Og sagde, DROttinn, hafe eg funded Naad fyrer þijnum Augum, þa fare Drottinn med oss, þvi þad er eitt hardsvijrad Folk, og vert lijknsamur yfer vorum Syndum, og Misgiordum, og laat oss vera þinn Arf.

II. 10. Og hann sagde, Sia, Eg vil giora einn Saattmaala, j Auglite alls þijns Folks, og eg vil giora daadsemlega Hlute, hvilijkir alldrei voru fyrr giorder j nockru Lande, eda hia nockru Folke. Og allt þad Folk sem þu ert a medal skal sia GUds Giorning, þvi þad skal vera daadsamlegt sem eg skal giora vid þig.

11. Hallt þad eg byd þier j Dag, Sia Eg vil wtreka þa Amoreos, Cananeos, Hetheos, Phereseos, Heveos, og Jebuseos fyrer þier,

12. Varast þu ad þu giorer nockurn Saattmaala vid Innbiggiara þess Lands sem þu innkiemur, ad þeir verde þier ecke til eirnrar Hneixlunar a medal ydar.

13. Helldur skalltu nidurbriota þeirra Alltare, og sundur meria þeirra Afgude, og hoggva þeirra Lunda nidur.

14. Þu skallt ecke tilbidia nockurn annann GUd, þvi DROttinn kallast Vandlætare, þvi hann er einn vandlaatur GUd,

15. Uppa þad, ef þu giorer nockud Samband med Landsins Innbiggiara, og þa þeir fremia Hoor epter þeirra GUdum, og offra til sinna GUda, ad þeir ecke biode þier, og þu eter af þeirra Foornum,

16. Og taker þeirra Dætur til Handa Sonum þijnum, og þær enar somu giore Hoor epter sijnum Afgudum, og kome þijnum Syne til ad fremia Hoor, epter sijnum Afgudum.

17. Þu skallt eingenn steypt Skwrgod giora þier.

18. Þu skallt hallda Osyrdra Brauda Haatijd, og eta Osyrd Braud j Sio Daga, sem eg hefe boded þier, j Abibs Maanadar Tijma, fyrer þvi, ad þu foorst af Egyptalande, j þeim Maanade Abib.

19. Allt þad sem first opnar sinnar Modur kvid, þad er mitt, hvad sem þad er, allt Karlkins a medal Fienadarins, sem opnar sinnar Modur Kvid, hvort helldur þad er Naut eda Sauder.

20. Enn Frumburd Asnans skalltu leysa med einum Saud, enn ef þu villt ecke leysa hann, þa briot hann wr Haalslidunum. Allann Frumburd af þijnum Sonum skallt þu leysa. Og þar skal eingenn birtast med toomum Hondum fyrer mier.

21. Sex Daga skalltu erfida, þann Siounda Dag skalltu hvijlast, bæde med Ploog og Kornskurd.

22. Þu skallt hallda Viku-Haatijdena med þeim Firsta Avexte af Hveitekornskurdenum, og þa Innburdar-Haatijd, þegar Aared er ute.

23. Þrisvar sinnum um Aared skal allt Karlkins opinnberast fyrer DROttnanda DROTTne, og GUde Israels.

24. Og þa eg hefe utreked Heidingiana fra þier, og þijn Landamerke verda vijdare, skal eingenn gyrnast þitt Land, þegar þu so upp fer, til ad birtast fyrer DROTTne þijnum GUde, þriar Reisur um Aared.

25. Þu skallt ecke offra mijns Offurs Blood uppa Swrt Braud, og þu skallt eckert laata afganga, jnn til Morguns, af Paaska Haatijdarennar Offre.

26. Þu skallt bera til DROttins þijns GUds Hwss þann Firsta Avoxt af þijnum Jardargrooda, þu skallt ecke matgiora Kided medan þad er a sinnar Modur Miolk.

27. Og DROttinn sagde til Mose, Skrifa þu þesse Ord, þvi epter þessum Ordum hefe eg giort einn Saattmaala vid þig, og vid Israel.

28. Og Moses var þar hia DROttne j Fiorutiju Daga, og Fiorutiju Nætur, og aat ecke Braud og ei drack hann Vatn. Og hann skrifade a Toblunnar soddann einn Saattmaala, þau Tiju Ordenn.

III. 29. Enn sem Moses gieck nu ofann af

Fiallenu Sinai, hafde hann tvær Vitnisburdarins Toblur j sinne Hende, og hann visse ecke ad Geislar stodu af hans Andlitis Hwod, þar af, ad hann hafde talad vid hann.

30. Og sem Aaron og øll Israels Born soau ad Geislar stoodu af hans Andlite þa þordu þeir ecke ad nealgast til hans.

31. Pa kallade Moses á þa, og þeir sneru sier til hans, bæde Aaron, og þeir aller Ypurstu af Almwganum, og hann talade vid þa.

32. Epter þad geingu øll Israels Born til hans. Enn hann baud þeim ad hallda, allt þad sem DRottinn hafde talad vid hann a Fiallenu Sinai.

33. Og þa hann talade allt þetta fyrer þeim, * liet hann Skylu fyrer sitt Andlit.

* 2 Cor. 3, 13.

34. Enn þa hann gieck jnn fyrer Drottinn, ad tala vid hann, þa tok hann Skyluna fra, þar til hann gieck wt aptur, og þa hann kom wt, og talade vid Israels Born, þad honum var boded,

35. Pa soau Israels Born a hans Andlit, hvornenn Geislar stodu af hans Andlits Hwod, þa liet hann Skyluna fyrer sitt Andlit ad nyu, þar til hann gieck jnn aptur ad tala vid hann.

# XXXV. Capitule.

(I) Hvijlld a Sabbathsdegenum; (II) Sialfviliuglegt Upplyptingar Offur til Tialldbudarinnar; (III) ægiæte Bezaleels.

I. Og Moses samansafnade øllum Almwganum Israels Barna, og sagde til þeirra, Petta er þad sem DRottinn hefur boded, ad þier skylldud giora.

2. Sex Daga skulud þier erfida, enn hann Siounda Dag skulud þier Helgann hallda, einn Sabbaths Dag, sem er Hvijld Drottins, hvor sem giorer nockud Erfide a þann Dag, hann skal deya.

3. Þier skulud ongvann Elld giora j øllum ydar Hybylum, um Sabbaths Dagenn.

4. Og Moses sagde til alls Almwgans Israels Barna, þetta er þad sem DROTTinn hefur bifalad,

5. Gefed DROTTNE Upplyptingar Offur a medal ydar, so hvor bere DRottne eitt Upplyptingar Offur viliuglega, Gull, Silfur, Kopar,

6. Gult Silke, Skarlat, Purpura, Hvijtt Silke, og Geitahaar,

7. Raudlitud Hruta Skinn, Greifingia Skinn, og Trie Setim,

8. Oleum til Lampanna, og Jurter til Smyrsla, og til jlmanda Reykelsis,

9. Og Onyx, og innsetta Steina til Lijfkyrtelsins, og til Briostskiolldsins.

10. Hvor af ydur sem er forstandigur hann kome, og giore hvad sem DROTTinn hefur boded,

11. Sem er Bwdena med hennar Tiolldum, og Pake, Hringana, Fialernar, Steingurnar, Stolpana, og Fæturnar.

12. Orkena med sijnum Staungum, Nadarstolenn, og Fortialldid.

13. Borded med sijnum Staungum, og øllum sijnum Verkfærum, Skodunarbraudenn,

14. Kiertestikuna til ad lysa, og hennar Verkfære, Lampana þar til, og Oleum til Liosanna,

15. Alltarid, ad giora Reyk a, med sijnum Staungum, Smyrslenn og Jurternar til eins Sætleiks Ilms, Klædid fyrer Tialldbwdarinnar Dyrum.

16. Brennefoorna Alltarid, med sinne Kopargrind, Staungum, og øllum sijnum umbwnade, Vatnkiered med sijnum Fæte,

17. Langtiolldinn Tialldbwdargardsins med sijnum Stoolpum og Footum, Klædenn j Hlidenu Tiallbwdargardsins,

18. Hælarner til Tialldbwdargardsins med þeirra Stogum.

19. Klædenn sem heyra til Pionustugiordenne, ad þiona med j Helgedomenum, Aarons

rons Prests Heilegu Klæde, og hans Sona Klæde, til Presta Embættesins.

II. 20. Pa gieck allur Almwge af Israels Bornum wt fra Mose.

21. Og aller þeir sem gꝍafu giarnann og velviliuglega komu, og bꝍaru Upplypt Offur til DRottinns, ad giora þad sem tilheyrde Vitnisburdar Bwdenne, og til allrar þeirrar þionustu, og til þeirra helgu Klæda.

22. So bꝍaru bæde Menn og Kvinnur, sem giordu þad velviliuglega, Armspanger, Eyrnahringa og Speingur, og allrahanda Gullbunad. Þar til bar hvor Madur Gull til (a) Upplyptingar fyrer DRottni.

(a) (Veifunar) veifa og upplypta, þesse tvo Ord, ad veifa og upp lypta, hliotum vier od læra rietkelega ad skilia, þviad Foorn eda Gꝍafa, sem giefenn var til Guds Þionustu, kallast þar fyrer Upplypting, eda Upplyptingar Offur, ad menn hoofu hana j Loft upp fyrer Drottine, enn Veifunar Offur kallast þad þar fyrer, ad þad sem offrad var, þvi var veifad j Fiorar ꝍtter j Austur og Vestur, Nordur og Sudur.

23. Og hvor Madur sem hafde Gult Silke, Skarlat, Purpura, Hvitt Silke, Geita Hꝍar, Raudar Hrwta giærur, og Greifingia Skinn, þad bar sa framm.

24. Og hvor sem upplypte Silfre eda Kopar, hann bar þad framm til Upplyptingar fyrer DROTTne, og hvor sem fann Furu Trie hiꝍa sier, þa bar hann þad framm til allshꝍattads Smijdis Guds þionustugiordar.

25. Og þær Konur sem voru forstandugar, þær spunnu med sijnum Hondum og frammbꝍaru sinn Verknad, af Gulu Silke, Skarlate, Purpura, Hvijtu Silke,

26. Og hveriar Kvinnur soddann Erfide kunnu, og voru Viliugar þar til, þær spunnu Geita Hꝍar.

27. Enn Hofdingiarner bꝍaru Onyx og greypta Steina framm, til Lijfkyrtilsins, og Briostskiolldsins,

28. Og Jurter, og Oleum til Kiertastikunnar, og til Smyrslanna, og til jlmanda Reijks.

29. So bꝍaru Israels Born velviliuglega framm, bæde Menn og Kvinnur, til alls hꝍattads Giornings, sem DROTTINN hafde boded fyrer Mosen ad giora skyllde.

III. 30. Og Moses sagde til Israels Barna, Siꝍaed, DROttinn hefur kallad med Nafne Bezaleel Uri Son, Sonar Hur, af Juda Slekte,

31. Og hefur uppfyllt hann med Guds Anda, so hann er Vijs, Hyggenn, og Skickanlegur til allrahanda Giornings,

32. Hann hefur Hagleik ad erfida j Gulle, Silfre og Kopar,

33. Og ad wtgrafa Gimsteina, og innsetia þa, ad smijda Trie og giora allrahanda hagleiks Giorning,

34. Og hefur giefed honum j hans Hiarta hyggende, lijka so Ahaliab, syne Ahisamachs, af Ætt Dan.

35. Hann hefur uppfyllt þeirra Hiortu med Vijsdom, til ad giora allrahanda Giorning, ad wtskiera, verka, og sauma med gulu Silke, Skarlate, Purpura, og hvijtu Silke, og ad vefa, og ad giora allrahanda Giorning, og ad upphugsa kostulegt Erfide.

## XXXVI. Capitule.

Nockrer Partar Tialldbudarennar fullgiorast.

So erfidade Bezaleel og Ahaliab, og aller Hyggnustu Menn, sem DRottinn hafde giefed Vijsdom og Skilning, ad vita hvornenn þeir skylldu smijda allrahanda smijde, til Helgedomsins Þienustu, epter þvi ollu sem DROTTinn hafde boded.

2. Og Moses kallade Bezaleel, og Ahaliab, og alla vijsa Menn sem DROTTinn hafde giefid Vijsdom j þeirra Hiortu, sem voru aller þeir sem med einn frijann Vilia budu sig siꝍalfa til, og geingu framm ad erfida, a þeim Verknade.

3. Og þeir medtoku til sijn af Mose, alla þa Lypting, sem Israels Born frammbꝍaru

ru til ad giora þann Giorning med, ſem heyrde til Helgedomſins Pionuſtu, ſo hun ſkyllde verda giord, þvi þeir boaru hvorn Morgun ſinar velviliuglegar Goafur til hans

4. Þa komu aller þeir Viiſuſtu, ſem erfidudu uppa Helgedomſins Giorning, hvor j ſinne Idiu, ſem þeir giordu,

5. Og ſogdu til Moſen, Folked ber ofmiked framm, meir enn þar gioreſt þarf til Giornings þeſſarar Pienuſtu, ſem DRottinn hefur boded ad giora.

6. Siidann baud Moſe ad hroopa ſkyllde vt um Herbuderrnar, ad eingenn ſkyllde bera meira framm til Helgedoomſins Lyptingar. Og þa liet Folked af ad bera framm,

7. Þvi þad var nog til allshoattads Giornings ſem þar var ad giora, og þad gieck þo af.

8. So giordu aller þeir viiſu Menn ſem voru a medal Erfidaranna, ad Giorninge Tialldbudarennar, Tiju Tiolld af hviit-tvinnudu Silke, Guln Silke, Skarlate, Purpura, Cherubim, forkoſtulega giort.

9. Hvort Tialld var oatta og Tuttugu oalna laugt, og Fiogra oalna breidt, og þau voru oll vid eirn moata,

10. Og Menn bundu Fimm Tiolld tilſamans, hvort vid annad,

11. Og giordu gular Lyckiur j hvorn Jadar a Tiolldonum,

12. So þau mætte bindaſt tilſamans,

13. Jaa, Fimmtiju Lyckiur a hvoriu Tiallde, ad feſta þau ſamann med. Og þeir giordu Fimmtiju Hringa af Gulle, og bundu þad eina Tiallo til þeſs annars med þeim, ſo ad þar yrde ein Tialldbud.

14. So giorde hann Elleſu Tiolld af Geita Hoare, til Paks yfer Tialldbudena.

15 Priatiju oalna laung, og Fiogra oalna breid, oll voru þau jafnlaung.

16. Fimm feſte hann til ſamans ſier j lage, og Sex tilſamans, j odru lage.

17. Og hann giorde vel Fimmtiju Lyckiur j Jadrana, a hvoriu Tiallde, ad þau þarmed mætte ſamanbindaſt.

18. Og giorde Fimmtiju Koparkrooka, ad binda Tialldbudina tilſamans med j Eitt.

19. Og hann giorde eitt Pak yfer Budena af raudu Hrutſkinne, og ſo enn nu eitt Pak ut ann yfer þad, af Greifingia Skinne.

20. Og hann giorde Fialer til Tialldbudarennar af Tricam Setim, ſem ſtanda ſkylldu.

21. Hvor var Tiju Alna laung, og halfrar annarar Alnar breid,

22. Og tveir Tittar a ſierhvorre, ſo hvor mætte ſetiaſt til annarar þar med.

23. So giorde hann allar Fialernar til Tialldbudarennar, ſo ad tuttugu af þeim ſomu Fiolum ſtoodu uppa þa Sydre Siidu.

24. Og hann giorde Fiorutiigu Silfur Fætur under þær, tvo Fætur under hvoria Fiol, vid hennar tvo Titta.

25. Hann giorde og lijka tuttugu Fialer, a þa Nyrdre Siidu j Tialldbudenne,

26. Med Fiorutiju Silfur footum, tvo Fætur under hvoria Fiol.

27. Enn til baka a Tialldbudenne, j Veſtur, giorde hann ſex Fialer,

28. Og tvær Fialer hioa Tialldbudarennar Hornum hvorumeigenn,

29 So ad hvor af þeim boadum, med ſinne Hornfiol, gaf ſig til ſamans fra nedanverdu, og ſamteingduſt ofan til med einum Oka.

30. So ad ſomu Fialer voru oatta, og ſextan Silfur Fætur, under hvorre tveir Fætur.

31. So giorde hann Steingur, af Tricam Setim, fimm til þeirra Fiala ſem ſtodu a þa eina ſijdu Tialldbudarennar,

32. Og fimm a þa adra Siidu, og fimm a bak til moot Veſtre.

33. Og giorde Steingurnar, ad þær mættu ſtingaſt midt j giegnum Fialernar, fra einum Enda til annars.

34. Og hann bioo ofann Fialernar med Gull, og þeirra Hringa giorde hann af Gulle til Stanganna, og bio Steingurnar med Gull.

35. Hann

35. Hann giørde og eitt Fortialld med Cherubim þar uppa, forkostulega, af Gulu Silke, Skarlate, Purpura, og hvijttvinnudu Silke.

36. Og giørde fiora Stolpa þar til af Tricam Setim, og bio þa utan med Gulle, og þeirra Knappa af Gulle. Og steypte fiora Fætur þar til af Silfre,

37. Og giørde eitt Fortialld fyrer Tialld-buudardyrnar, af gulu Silke, Skarlate, Purpura, stangad med Hvijttvinnudu Silke.

38 Og fimm stolpa med þeirra Knoppum, og slo þeirra Knappa og Laufverk med Gull, og fimm Koparfætur þar vid.

## XXXVII. Capitule.

Neckud af Helgedomnum fullsmijdast.

So giørde Bezaleel Ørkena af Tricam Setim, halfrar þridiu alnar langa, og halfrar annarar alnar ad Hæd og breidd.

2. Og bioo hana med klart Gull, bæde utan og innan, Og giørde eina Gullkoronu ofan um hana,

3. Og steypte fiora Gullhringa j hennar fiogur horn, tvo a hvoria Sijdu.

4. Og giørde Steingur af Setim Tricam, og slo þær med Gulle,

5. Og stack þeim j Hringana vid sijdurnar a Ørkenne, ad bera hana med.

6. Og hann giørde Naadarstol, af klaaru Gulle, halfrar þridiu alnar langann, og halfrar annarar alnar breidann,

7. Og giørde tvo Cherubim af smelltu Gulle, a þeim tveimur endum Naadarstolsins,

8. Einn Cherub a þessum enda, enn annan a ødrum.

9. Og Cherubim breiddu sijna Vænge vt, ofan yfer, og huldu þar med Naadarstolenn, og þeirra Andlit sneru hvort a moote ødrum, og litu a Naadarstolenn.

10. Hann giørde Borded af Tricam Setim, tveggia alna langt, eirnrar alnar breidt, og halfrar annarar alnar hoatt,

11. Og lagde þad med klaart Gull.

12. Hann giørde og eirn Krans af Gulle þar um kring, og giørde eina Listu þar umhverfis, eirnrar Hverhandar ad Hæd, og giørde eirn Gullkrans j kringum Listuna,

13. Og steypte fiora Gullhringa þar til, og sette þa j þau fiogur Horn, a þess fiorar Fætur, hardt nærre Listunum,

14. Ad Steingurnar mætte vera þar j, ad bera Borded med,

15. Og giørde Steingurnar af Tricam Setim, og bio þær med Gull ad bera Borded med,

16. Og hann giørde Kierinn sem skylldu til Bordsins af klaaru Gulle, Diska, Bikara, Kønnur, og Skaaler til ad skeinkia af og a.

17. So giørde hann og Kiertestikuna af klaaru og smelltu Gulle, þar uppa var Stiakenn med Pijpunum, Skaalunum, Knoppunum, og Blomstrunum,

18. Sex Pijpur geingu vt af hennar Sijdu, þriar a hvoria sijdu,

19. Þriar skaaler voru a hvoriumPijpulegg med Knoppum og Blomstrum,

20. Enn a Liosastiakanum voru fiorar skaaler med Knoppum og Blomstrum,

21. Iaa, einn Knappur a millum hvorra tveggia Pijpuleggia, so ad þar gengu sex Pijpulegger vt af henne,

22. Og þeirra Knappar, og Pijpulegger þar uppa, þad var allt af smelltu Gulle,

23. Og hann giørde Sio Lampa, med þeirra Liosasoxum, og Liosaslockvurum, af klaaru Gulle,

24. Og hann giørde hana med øllum sijnum Boonade, af einu Centener Gulls.

25. Hann giørde og Reykelsis Alltarid af Tricam Setim, eirnrar alnar a leingd, og breidd, riett ferskeytt, og tveggia alna hoatt, med sijnum hornum.

26. Hann bio þad ofan, og a allar Sijdur umhverfis, med klaara Gull, og so Hornenn med, og giørde einn Gullkrans j kringum þad,

27. Og tvo Gullhringa under Kransenn a baadar sijdur, ad stijnga Steingunum j þa, ad bera þad med,

28. Enn Steingurnar giorde hann af Triaam Setim, og bio þær med Gull.

29. Og hann giorde þau helgu Smyrsl, og Reykeisid, af hreinum Jurtum, epter Smyrslamakarans kunnattu.

# XXXVIII. Capitule.

*Yfred miked Fe af Gulle, Silfre, og Kopar.*

Hann giorde og Brennefoorna Alltare af Trie Setim, Fimm alna langt og breidt, riett ferskeytt, og þriggia alna haatt.

2. Og hann giorde fiogur Horn, sem gingu vt af þvi a þess fiorum Hyrningum, og yferslo þad utan med Kopar.

3. Og giorde allt þad sem heyrde til Alltaresins, Oskupotta, Sleyfar, Munnlaugar, Matkroka, Elldponnur, allt þetta af Kopar.

4. Og giorde eina Grind j kringum Alltarid, sem eitt Net, af Kopar, fra nedanverdu, og upp til mids a Alltared.

5. Og steypte fiora hringa a þeim fiorum Hornum a Kopargrindenne,

6. Ad stinga Staungunum þar j, sem hann hafde giort af Triaam Setim, og sloo þær med Kopar,

7. Og stack þeim j Hringana, vid Sijdurnar a Altarenu, til ad bera þad med Og giorde þad holt jnnann.

8. Hann giorde og Vatnkiered af Kopar, og þess stiett af Kopar, þvert yfer fra (a) Konunum sem þionudu fyrer Samkundu Tialldbwdardyronum.

(a) (Konunum) þessar kvinnur hafa vered Gudhræddar Eckiur og kvinnur, sem med Fostum og Bænahallde Gude þionudu fyrer Tialldbudenne.

9. Hann giorde og eirn Gard moot Sudre, med einu Langtiallde af hvijttvinnudu Silke hundrad alna longu,

10. Med sijnum tuttugu stolpum, og tuttugu Footum af Kopar, enn þeirra Knappar og Laufverk af Silfre.

11. Lijka so a þa Nyrdre sijdu, hundrad alna, med tuttugu Stolpum, og tuttugu Footum af Kopar,

12. Enn þeirra Knappar og Laufverk af Silfre.

13. Enn a þa Vestre sijdu, Fimmtiju alna, med tiju stolpum, og tiju Footum, enn þeirra Knappar og Laufverk af Silfre.

14. Enn a þa Eystre Sijdu fimmtiju alna,

15. A hvoria sijdu Forgards-portsins fimmtan alner, Jaa, med þremur Stolpum, og þremur Footum. Og allt Tiallded Tialldbwdargardsins var af hvijttvinnudu Silke,

16. Og fæturnar til Stolpanna af Kopar, og þeirra Knappar og Laufverk af Silfre, so ad þeirra Hofud voru sleigenn med Silfre,

17. Enn þeirra Laufverk af Silfre a ollum Gardsins Stolpum.

18. Og Fortialldid j Inngaungu Gardsins stack hann med Gulu Silke, Skarlate, Purpura, og hvijttvinnudu Silke, tuttugu alna langt, og fimm alna haatt, epter þeim mæler sem Tiolldenn Tialldbwdargardsins voru.

19. Þar til fiora Stolpa, og fiora Fætur af Kopar, og þeirra Knappar af Silfre, og þeirra Hofud sleigenn, og þeirra Kransar af Silfre,

20. Og aller Hælar til Tialldbwdarennar, og til Gardsins riett um kring voru af Kopar.

21. Þetta er nu Summann til Vitnisburdar Bwdarennar, sem nu er upp talenn, sem Moses hafde sagt, til Guds Þionustugiordar, sem Levitarner skylldu hallda, under Ithamar Arons Prests sonar Hende.

22. Og þetta tilreidde Bezaleel, sonur Uri, Sonar Hurs, af ætt Juda, allt saman, lijka sem DRottinn baud Mose,

23. Og Ahaliab Ahisamachs son, af Ætt Dans, med honum, þvi hann var Meste hagleiks Madur til ad skiera vt, ad verka, og ad stanga med gulu Silke, Skarlate, Purpura og hvijtu Silke.

24. Allt

24. Allt það Gull sem smijdað var til þess alls Helgedooms booning, það sem giefed var til Upplyptingar Offurs, er niju og tuttugu Centener, Siø hundrud og þriatiju Siklar, epter Helgedomsins Sikle.

25. Enn Silfred, sem fra Almwoganum kom, var Hundrad Centener, Þusund siø hundrud, siotiju og fimm Siklar, epter Helgedomsins Sikle.

26. So margt Høfud, so margur halfur Sikell epter Helgedomsins Sikle, af ollum þeim sem talder voru, fra tuttugu aarum, og þar yfer, Sex hundrad sinnum Þusund, þriu Þusund, fimm hundrud og fimmtije.

27. Af þvi Hundrade Centener Silfurs steyptu Menn Fæturnar til Helgedomsins, og Fæturnar til Fortialldsins, Hundrad Fætur af hundrad Centener, Jaa, eitt Centener j hvorn Foot.

28. Enn af þvi Þusund, siø hundrud, siotiju og fimm Sikel, giordu menn Knappa ofan a Stolpana, og þeirra Høfud yfersodrud, og þeirra Laufverk.

29. Enn Koparenn, sem giefenn var til Upplyptingar offurs var siotijger Centener, tvø Þusund og fiogur hundrud Siklar,

30. Þar af giordu Menn Fæturnar til Dyranna, fyrer Samkundu Tialldbwdena, og Kopar-Alltared, og Kopar-grindernar þar-a, og allt það sem heyrde til Alltarenu.

31. Þar til Fæturnar til Gardsins, allt um kring, og Fæturnar til Portanna a Gardenum, allan Saum til Tialldbwdarennar, og alla Hæla til Tialldbwdargardsins allt um kring.

## XXXIX. Capitule.

Kennemanna Skrudenn verdur buenn.

Enn af þvi Gula Silke, Skarlate og Purpura, giordu þeir Embættis skrwdann handa Aarone, til Þienustu j Helgedomenum, sem DRottinn hafde boded Mose.

2. Og hann giorde Lijfkyrtelenn af Gulle, gulu Silke, Skarlate, Purpura, og Hvitvinnudu Silke.

3. Og sloou Gulled, og klipptu til Þraadar, so Mann mætte kostulega vesa þvi a millum guls Silkes, Skarlats, Purpura, og hvijts Silkis,

4. So Lijfkyrtellen mætte festast samann a baadum Oxlunum, og bindast til samans a baadum Hlidunum.

5. Og hans Linde var epter sama Hagleik og Giorninge, af Gulle, gulu Silke, Skarlate og Purpura, og Hvijtvinnudu Silke, sem DROTTinn hafde boded Mose.

6. Og þeir settu tvo Onyx Steina, greypta j Gull um kring, wtgrafna af Steinsnijdaranum, med Israels Barna Nofnum.

7. Og festu þa a Axlernar a Lijfkyrtelenn, ad þeir Steinar skylldu vera Israels Bornum til eirnrar Minningar, sem DRottinn hafde bijfalad Mose.

8. Og þeir giordu Briostskiolldenn epter þeim sama hagleik og giorninge, sem Lijfkyrtellenn var giordur, af Gulle, gulu Silke, Skarlate, Purpura, og Hvittvinnudu Silke,

9. So ad hann var ferskeittur og twofalldur, Spannarlangur, og Spannar breidur.

10. Og hloodu hann med fiorar Rader af Steinum, J firstu Rod var Sardis, Topaser, og Smaragdus,

11. J annare Rod, Rubin, Saphir, og Demant,

12. J þridiu, Lyncurer, Achat, og Amethist.

13. J fiordu, Turkous, Onyx, og Jaspis,

14. Greypter j Gull, j ollum Rodunum um kring. Og Steinarner stoodu epter Nofnum Tolf Israels Barna, wtgrafner af Steinsnijdaranum, hvor vid sitt Nafn, epter þeim Tolf Kinkvijslum.

15. Þeir giordu og a Briostskylldenum Kediur med tveimur endum, af kiæru Gulle,

16. Og twær Gullspeingur, og tvo Gullhringa, og festu þa tvo hringa j tvø Horn a Briostskylldenum.

17. Og stungu so þeim tveimur Gullfestum j þa tvo Hringa, sem voru j Hornum Brioststkiollds ins,

18. Enn þa tvo enda a samre Feste settu þeir vid þær tvær Speingur, og festu þær vid Jadarinn a Lijfkyrtlenum, hvoria þvert yfer fra annare.

19. So giordu þeir adra tvo Gullhringa, og festu þa j þau ønnur tvø hornenn a Briostskylldenum, j sijnum stad, so þad loa skrautlegt a Lijfkyrtlenum.

20. Og þeir giordu adra tvo Gullhringa, þa settu þeir til tveggia Randa nedann a Lijfkyrtlenum, hvorn þvert yfer fra ødrum, þar sem Lijfkyrtellenn gieck nedann til samans,

21. So ad Briostskiolldurenn festest med sijnum Hringum vid þa Hringa a Lijfkyrtlenum, med eirnre Gulre Snwru, so ad hann var festur vid Lijfkyrtelenn, og ecke laus fra Lijfkyrtlenum, sem DROTTinn bifalade Mose.

22. Hann giorde og eirn Silkemøttul, auk Lijfkyrtilsins, allann verkadann af gulu Silke,

23. Og Halsmoal midt uppa, med einum Borda, falldad kringum Hoalsmoaled, ad þad skyllde ecke rifna.

24. Og þeir giordu Granata Eple nedan a hans Fallde, af gulu Silke, Skarlate, Purpura, og hvijt-tvinnudu Silke,

25. Og giordu Biollur af kloaru Gulle, og settu þær a millum Granata Eplanna nedann vid Falldinn allt um kring a Silkemøttulenn,

26. So þar var eitt Granata Eple og ein Bialla, allt um kring a Falldenum, til ad þiena þar j, So sem DRottinn hafde bifalad Mose.

27. Þeir giordu og mioa Kyrtla, af hvijtu tvinnudu Silke, til Aarons og hans Sona,

28. Og eitt Hofudklæde af hvijtu Silke, og þær fogru Hwfur af hvijtu Silke, og Nidur-Klæde af hvijtu tvinnudu Lierepte,

29. Og þeir stongudu Lindann med hvittvinnudu Silke, gulu Silke, Skarlate, Purpura, sem DRottinn hafde boded Mose.

30. Þeir giordu og Ennisspaungena, sem var su Helga Korona, af kloaru Gulle, og grofu Skrift þar j, DROTTINS HELGEDOMUR.

31. Og bundu einn gulann Dreigel þar vid, ad hann skyllde festast ofann til a Hofudklædid, sem DRottinn hafde boded Mose.

32. So var nu allur umbwnadur Samkundu Tialldbwdarennar fullgiordur. Og Israels Born giordu allt þad sem DRottinn hafde bifalad Mose.

33. Og þeir boaru Tialldbwdena til Mose, Bwdena og allann hennar umbwnad, Krookana, Fialernar, Steingurnar, Stolpana, Fæturnar,

34. Laked af Raudlitudu Hrwtskinne, þaked af Greifingia Skinne, og Fortialldeð,

35. Vitnisburdar Orkena med sijnum Staungum, og Noadarstolenn,

36. Borded med sijnum øllum Bwninge, og Skodunar Braudenn,

37. Þa fogru Kiertestiku med Lompunum tilreidda, og øllu þvi sem þar heyrde til, Oleum til Liosanna.

38. Gull Alltared og Smyrsliun, og þad kostulega Reykelse, og Fortialld j Inngange Bwdarenner,

39 Kopar Alltared med sinne Kopargrind, med sijnum Staungum, og øllum umbwnade, Vatnkiered med sijnum Fæte,

40. Langtiolldenn til Gardsins, med þeirra Stolpum og Footum, Fortialldeð j Inngongu Gardsins, med sijnum Stogum og Noglum, og allt þad sem heyrer til Þionustugiordenne, j Samkundu Tialld-Bwdenne.

41. Aarons Prests Embættis Klæde, til ad þiona j Helgedomenum, og hans Sona Klæde, sem þeir skylldu hafa þa þeir fremde Kiennemannlegt Embætte.

42. Og Israels Born giordu allt þad sem DROTTinn hafde befalad Mose, til allrar þessarar Þionustu.

43. Og

43. Og Moses skodade allann þennann Giørning, ad þeir hofdu giort þad j allann maata sem DROTTinn hafde bifalad, og hann blessade þa.

## XL. Capitule.

(I) Tialldbudenn er uppsett, og (II) viigd.

I. Og DROTTinn mællre vid Mosen, og sagde,

2. Þu skallt uppreisa *Samkundu-Tialldbwdena, þann hinn firsta Dag j þeim firsta Maanade. *Ebr. 9, 2. etc.

3. Og þu skallt og setia Vitnisburdarins Ørk þar j, og heingia Fortiallded fyrer Ørkena.

4. Þu skallt og bera Borded þangad, og tilbwa þad. Þu skallt og setia Kierta stikuna þangad, og Lampana þar uppa.

5. Þu skallt og setia þad Gyllne-Reyk-Alltare fyrer Vitnisburdar-Ørkena, og heingia so eitt Fortialld fyrer Tiallbwdarennar Dyr.

6. Enn þu skallt setia Brenne-Offursins Alltare utann fyrer Samkundu-Tialldbwdar Dyrnar

7. Og Vatnkiered millum Samkundu-Tialldbwdarennar og Alltaresins, og laata Vatn þar j.

8. Og setia Tialldbwdargardenn þar riett umkring og heingia Fortiallded fyrer Portenn a Tialldbwdargardenum.

II. 9. Og þu skallt taka Smyrslenn, og smyria Tialldbwdena, og allt þad sem þar er jnne, og viigia hana med øllum hennar umbwnade, so hun sie heiløg.

10. So skalltu og smyria Brenne-Offursins Alltare, med øllum siinum Verkfærum, og viigia þad, so þad sie þad Allra-Heilagasta.

11. Þu skallt og smyria Vatnkierid og þess Foot, og viigia þad.

12. Þu skallt leida Aaron og hans Sonu til Samkundu-Tialldbwdar Dyranna, og þvo þa med Vatne,

13. Og færa Aaron j þau Heiløgu Klæde, og smyria og viigia hann, ad hann sie minn Kiennemadur.

14. Þu skallt og leida hans Sonu framm, og færa þa j þa miou Kyrtla,

15. Og smyria þa, liika sem þu smurder þeirra Fødur, ad þeir skulu vera miiner Kiennemenn. Þesse Smurning skal vera þeim til eins eyliifs Kiennemannsskapar, hioa þeirra Epterkomendum.

16. Og Moses giorde alla Hlute so sem DROTtinn hafde boded hønum.

17. So var nu Tialldbwdenn uppreist, þann Firsta Dag j þeim Firsta Maanade, a þvi ødru aare.

18. Og þa Moses hafde uppreist hana, sette hann Fæturnar, og Fialernar, og Steingurnar, og reiste Stolpana upp,

19. Og wtbreidde Tiolldenn yfer Bwdena, og lagde Tialldþekenn þar uppa, sem DROTTINN hafde boded hønum.

20. So og tok hann Vitnisburdenn, og lagde hann j Ørkena, og sette Steingurnar j Ørkena, og sette Naadarstolenn ofann a Ørkena.

21. Og bar Ørkena jnn j Tialldbwdena, og heingde Fortiallded framann fyrer Vitnisburdarins Ørk, sem DROTTinn hafde bifalad hønum.

22. Og hann sette Borded j Samkundu Tialldbwdena j Horne Bwdarennar j moot Nordre, fyrer framann Fortiallded,

23. Og tilreidde Braud þar uppa fyrer DRottni, sem DRottinn hafde bifalad hønum.

24. So sette hann og Kiertastikuna þar jnn, þvert yfer fra Bordenu, j þad Horn j Tialldbwdenne moot Sudre,

25. Og sette Lampana þar uppa fyrer DROTTni, sem DROTTinn hafde bifalad hønum.

26. Hann sette og Gull-Alltared þar jnn fyrer framann Fortiallded,

27. Og giorde þar ann Reykelsis Ilm þar uppa, sem Drottinn hafde bifalad hønum.

28. Og hann heingde eitt Fortialld fyrer Tialldbwdar Dyrnar,
29. Enn Brennefoorna Alltared sette hann fyrer Tialldbwdar Dyrnar, hioa Samkundu Tialldbwdenne, og offrade þar a Brennefornum og Matoffre, so sem Drottinn hafde bifalad honum.
30. Og hann sette Vatnkiered i millum Samkundu-Tialldbwdarennar, og Alltaresins, og liet þar Vatn j ad þvo af.
31. Og Moses og Aaron og hans Syner þvodu sijnar Hendur og Fætur þar af,
32. Þvi þeir skylldu þvo sier, þa þeir geingu jnn j Samkundu-Tialldbwdena, eda þa þeir geingu framm til Alltaresins, so sem DROTTinn hafde bifalad honum.
33. So reiste hann Bwdargardenn upp j kringum Tialldbwdena, og Alltarid, og heingde Fortallded j Forgardsinns Port: So fullkomnade Moses þañ allann Giorning.
34. Þa hulde eitt Skij Samkundu Tialldbwdena, og Dyrd DROTTins uppfyllde hana.
35. Og Moses gat ecke geinged jnn j Samkundu-Tialldbwdena, þa stund sem Skijed stod þar yfer, og a medann Guds Dyrd uppfyllte Tialldbwdena.
36. Og þa Skijed tok sig upp fra Tialldbwdenne, þa ferduduſt Israels Born, so opt sem þeir ferduduſt.
37. Enn þa Skijed tok sig ecke upp, þa voru þeir kyrrer, og ferduduſt ecke, fyrr enn þann Dag þad tok sig upp.
38. Þviad DROTTins Skij var um Daga yfer Tialldbwdenne, og um Nætur var þad gloandi Elldur, fyrer Augum alls Israels Hwss, so leinge sem þeir voru a Leidenne.

Ender a Annare Bok Mose.

# Leviticus.

# Pridia Mose Bok.

## I. Capitule.

Løgmaal um Brennefornena.

Og DROTTINN kallade Mosen, og talade vid hann wr Samkundu Tialldbwdenne og sagde,
2. Tala þu vid Israels Born, og seig þu til þeirra, Hvor af ydur sem Foorn vill færa Drottne, hann fære hana af Kvikfie, Nautum og Saudum.
3. Vilie hann offra Brennefoorn af Nautum, þa skal hann offra þvi sem Karlkins er, og Vammalauſt, utann fyrer Samkundu Tialldbwdar Dyrunum, so þad verde DROTTNI þacknæmt af honum.
4. Og hann skal leggia sijna Hond yfer Hofud Brennefornarennar, þa mun þad verda þacknæmt, og forlijka hann.
5. Hann skal sæfa þad unga Naut fyrer DRottne, og Prestarner, Aarons Syner, skulu bera Bloded framm, og stockva þvi umkring a Alltared, þad sem stendur fyrer Dyrum Samkundu-Tialldbwdarennar.
6. Og Hwdena skulu þeir floa af Brennefornenne, so skal hun og hoggvaſt j stycke.
7. Enn Aarons Prests Syner skulu giora einn Elld a Alltared, og leggia þar yfer Vid,
8. Og þeir skulu leggia Styckenn a Videnn, Hofuded og Morenn,
9. Enn Innislenn og Fæturnar skulu þeir þvo j Vatne. Og Presturenn skal brenna þad alltsamann a Alltarenu, til Brenneoffurs. Þad er einn Elldur til Sætleiks Ilms fyrer DRottnī.

10. Enn vilie hann giora eitt Brenneoffur, af Saudum eda Geitum, þa skal hann offra þvi sem ad er Karlkins og Lytalaust.

11. Og skal slaatra þvi hioa sijdu Altaresins j Nordur, fyrer DROTTni. Og Prestarner Aarons Syner, skulu stockva Bloodenu j kring oa Alltared.

12. Og þad skal hoggvast j Stycke, og Presturenn skal leggia Hofuded og Morenn uppa Viden og Elldinn, sem er a Alltarenu,

13. Enn Inniflenn og Fæturnar skal þvo j Vatne. Og Presturenn skal offra þvi, og brenna þad alltsamann a Alltarenu, til Brenneoffurs. Pad er einn Elldur til Sætleiks Ilms fyrer DROTTNI.

14. Enn vilie hann offra DROTtni Brenneoffre af Fuglum, þa loate hann þad vera af Turtil-Doofum, eda af ungum Doofum

15. Og Presturenn skal bera þad til Alltaresins, og klypa Hofuded þar af, so þad sie brennt a Alltarenu, og loata Blooded renna nidur hioa Sijdu Alltaresins,

16. Enn kasta Sarpenum og Fiodrunum j þa Oskuhroogu Austann til hioa Alltarenu.

17. Og hann skal kliufa Vængena, og briota þa ecke af. Og so skal Presturenn kveikia Elld j Vidnum oa Alltarenu til Brenneoffurs. Pad er Elldur til eins Sætleiks Ilms fyrer DROTTNI.

## II. Capitule.

Logmaal um Matarfornena.

Þegar ein Saal vill giora DROTTni Matoffur, þa skal þad giorast af Hveitemiole, og skal hella Oleum þar yfer, og so leggia Reykelse þar oa,

2. Og bera þad so til Prestanna Aarons Sona. Pa skal Presturenn taka sijna Hond fulla af þvi sama Hveitimiole, og Oleum, med ollu samann Reykelsenu, og brenna þad a Alltarenu, til eirnrar Minningar, þad er Elldur eins Sætleiks Ilms fyrer DROTTni.

3. Enn þad sem geingur af Matoffrenu, þad skal heyra til Aarone og hans Sonum, þad skal vera þad Allra-Helgasta, af Ellde DROTTINS.

4. Enn ef hann vill giora Matoffur af þvi sem bakad er j Ofne, þa skal hann aka Osyrdar Hveitemiols Kokur, meingadar med Vidsmiore, og Osyrda þunna Leifa, smurda med Vidsmiore.

5. Enn sie þitt Matoffur nockud af þvi sem bakad er j Ponnu, þa skal þad vera af Osyrdu Hveitis Miole, meingudu med Vidsmiore.

6. Og þu skallt skipta þvi j Stycke, og hella Oleum þar yfer, þa er þad eitt Matoffur.

7. Enn sie þitt Matoffur nockud þad sem steikt er a Rist, þa skalltu giora þad af Hveiti-Miole og Vidsmiore,

8. Og þad Matoffur sem so gioreft til DROTTins skalltu bera til Prestsins, Hann skal bera þad til Alltarisins,

9. Og upphefia þad sama Matoffur til eirnrar Minningar, og uppbrenna þad a Alltarenu. Pad er Elldur eins Sætleiks Ilms fyrer DROTTni.

10. Enn þad sem afgeingur skal heyra Aarone og hans Sonum til, og þad skal vera þad Allra-Helgasta af Ellde DROTTINS.

11 Allt þad Matoffur sem þier vilied Foornfæra DROTTni þad skulud þier giora oan Suurdeigs, þvi eckert Suurdeig, edur Huunang skal vera saman vid þad sem þier skulud brenna til Ellds fyrer Drottni.

12. Enn j Foorn Firsta Jardar Avaxtar, skulud þier bera þau fyrer DROttinn, enn ecke skulu þau koma a neckud Alltare til eins sæts Ilms.

13. Pu * skallt sallta allt þitt Matoffur, og þitt Matoffur skal alldrei vera fyrer utann þijns Guds Saattmaala Sallt, þvi þu skallt offra Sallte j ollum þijnum Foornum.

* Marc. 9, 48.

14. Enn viller þu giora DROttni Matoffur af þijnum Firsta Avexte, þa skalltu þurka þad græna Axed vid Elld, og mella þad smaatt, og offra so Matoffre af þijnum Firsta Avexte,

15. Og þu skallt laata Vidsmiør þar uppa, og leggia Reykelse þar yfer, þa er þad eitt Matoffur.

16. Og Presturenn skal brenna nockud af þvi enu Malda, og af Vidsmiørenu, med øllu Reykelsenu, til eirnrar Minningar, þad er einn Elldur fyrer DROTTNI.

## III. Capitule.

Løgmaal um Packlætes Offur.

Enn sie hans Offur eitt Packlætis Offur af Nautum, hvort þad er Uxe, edur Kyr, þa skal hann þad offra fyrer DRottni sem er Lytalaust.

2. Og hann skal leggia sijna Hønd a Høfuded a þvi, og slaatra þvi fyrer Samkundu-Tialldbwdar Dyrunum. Og Prestarner, Aarons Syner, skulu stockva Bloodenu j kring a Alltared.

3. Og skal so offra DROTTNI af sama Packlætis Offre, sem er, allann Innifla Morenn,

4. Þau tvo Nyrunn med Nyrnamørnum sem þar er vid Malernar, og Lifrarnetiuna afrifna, med Nyrunum.

5. Og Aarons Syner skulu brenna þad a Alltarenu, til Brenneoffurs, a Vidnum þeim sem liggur a Elldenum, þad er Elldur til Sætleiks Ilms fyrer DROTTni.

6. Enn vilie hann giora DROTTni eitt Packlætis Offur af Smaafienade, hvort þad er Grad-Fie eda Ber-Fie, þa skal þad vera oan Lyta.

7. Sie þad eitt Lamb, þa skal þad bera framm fyrer DROTTinn,

8. Og leggia sijna Hønd a Høfuded a þvi, og slaatra þvi fyrer Samkundu Tialldbwdenne. Og Aarons Syner skulu støckva Bloodenu umkring a Alltared,

9. Og offra so DROTTni af þvi Packlætis Offre til Elldsfins, sem er Morenn og alla Roofuna, slitna fra Hriggnum, og allann Morenn sem er a Innislunum.

10. Nyrunn bæde med Nyrna Mornum, vid Malernar, og Lifrarnetiuna, med Nyrunum afslitnum.

11. Og Presturenn skal brenna þad a Alltarenu, til Ellds Matar fyrer Drottni.

12. Enn sie hans Offur ein Geit, og leider hann hana fyrer DROTTinn,

13. Þa skal hann leggia sijna Hond yfer hennar Høfud, og slaatra henne fyrer utann Samkundu-Tialldbwdena. Og Aarons Syner skulu stockva Bloodenu riett umkring a Alltared,

14. Og skulu offra DROTTNI eitt Offur þar af, sem er Innisla Morenn,

15. Og Tvo Nyrunn, med þeim Mor, sem þar er vid, vid Lendarnar, og Lifrarnetiuna, med Nyrunum afslitnum.

16. Og Presturenn skal upptendra þad a Alltarenu til Ellds Matar, til eins Sæts Ilms.

17. Allt þad Feita heyrer DROTTni til, þad skal vera einn eylijfur Plagsidur hia ydrum Epterkomendum, j øllum ydar Hybylum, ad þier skulud hvorke eta Morenn, ei helldur Blooded.

## IV. Capitule.

Løgmaal um Syndaoffur.

Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þu vid Israels Born, seigiande, Þegar nockur Saal misgiører ovitande j moote nockru Bodorde DRottins, hvad hann ecke skyllde giora,

3. Sem er, Ef eirn Prestur, sa sem smurdur er, syndgar, so hann (a) hneixlar Folked, þa skal hann leida framm fyrer sijnar Synder, þær hann hefur giort, einn ungann Uxa sem er oan Lyta, til Syndaoffurs, fyrer DRottni.

(a (Hneik'ar) þad er, giefur ovært Ordsøk til Syndar og Sakar, med lærdome edur lifnade.

4. Og hann skal leida þann Uxa fyrer Samkundu-Tialldbwdardyrnar, og leggia sijna Hønd yfer hans Høfud og sæfa hann fyrer DRottni.

5. Og Presturenn sa sem er smurdur, skal taka af Uxans Bloode, og bera þad jnn j Samkundu Tialldbwdena,

6. Og hann skal drepa sijnum Fingre j Blooded, og stockva siosinnum þar af, fyrer DRottni, framan fyrer Fortiallde Helgedomsins.

7. Hann skal og lata af sama Blode, uppa Reykalltaresins Horn, sem stendur fyrer DRottni, j Samkundu Tialldbwdenne, og øllu Bloodenu skal hann wthella hia Brennefoorna Alltaresins Fæte, sem stendur fyrer Samkundu-Tialldbwdar dyronum.

8. Enn øllu þvi enu Feita af Syndaoffrenu, skal hann upp lypta, sem er, þad feita a Innifslunum,

9. Tvo Nyrunn med þeirra Feite, sem þar filger vid Lendarnar, og Netiuna yfer Lifrinne, afslitna med Nyrunum,

10. So sem sidur er ad upplypta þvi, til Packlætes offurs af Uxanum, og skal uppkveikia þad a Brennefoorna Alltarenu.

11. Enn Skinned af Uxanum med Øllu Kiøtenu, og Hofdenu, Footunum, Innifslunum, og Mykenne,

12. Þad skal hann allt saman bera j burtu, wt fyrer Herbwdernar, a eirn hreinann Stad, þangad sem Menn plaga ad kasta Øskunne, og skal upp brenna þad a Vidnum med Ellde.

13. Enn þa allur Almwgenn j Israel Misgiører, enn giørningurenn er hulenn fyrer þeirra Augum, þad þeir hafe nockud giørt, a moote Bode DRottins, þad þeir attu ecke ad giora,

14. Og eru so ordner sakader, Enn kannast vid sydann, ad þeir hafa syndgast, Þa skulu þeir framleida einn ungann Uxa, til Synda offurs, og leida hann fyrer Samkundu-Tialldbwdar dyr.

15. Og þeir ellstu af Almwganum skulu leggia sijnar Hendur yfer hans Høfud, fyrer DRottni, og slatra Uxanum fyrer DRottni.

16. Og Presturenn, sa sem smurdur er, skal bera af Bloodenu Uxans jn j Samkundu Tialldbwdena,

17. Og drepa sijnum Fingre þar j, og stockva þvi so j sio reisur, fyrer DRottni, fyrer framann Fortiallded,

18. Og hann skal lata Bloded a Alltares hornenn, sem stendur fyrer DRottni j Samkundu Tialldbwdenne, Enn steipa øllu ødru Bloodenu hia Fæte Brenneoffurs Alltarisins, sem stendur fyrer Samkundu-Tialldbwdar dyronum.

19. Enn allre hans Feite skal hann upplypta, og upptendra hana a Alltarenu.

20. Og skal med Uxann fara, so sem hann foor med Synda-offursins Uxa. Og so skal Kiennemadurenn forlijka þa, og so verdur þeim þad fyrergiefed.

21. Og skal færa Uxann wt fyrer Herbwdernar, og upp brenna hann, so sem hann upp brennde þann annann Uxann fyrre, Þad skal vera Almwgans Synda-offur.

22. Enn þa einn Høfdinge syndgast, og giører nockud j mote DRottins sijns Guds Bodorde sem hann skyllde ecke giora, og giører þad oforvarande, so ad hann er sekur ordenn.

23. Og fær ad vita sijna Synd sem hann hefur giørt. Hann skal leida framm eirn Kiarnhafur til Foornar, sem er an Lyta,

24. Og leggia sijna Hønd a Hafursins Høfud, og slatra hønum j þeim stad, sem Menn plaga ad slatra Brennefoornum fyrer DRottni, Þad skal vera hans Synda-Offur.

25. Þa skal Presturenn taka af þvi Synda-Offurs Bloode med sijnum Fingre, og striuka þvi a Hornenn a Brenneoffursins Alltare, og hella hinu blodenu nidur hia Fæte Brennefoornar Alltaresins.

26. Enn allann hans Mor skal hann upptendra

tendra a Alltarenu, lijka sem Mørenn af Packlætis Offrenu, Og so skal Presturenn forlijka hans Synder, og þa er þad honum fyrergiefed.

27. Enn þa nockur Saal af Almuga-folkenu missier sig, og syndgast, so hun brytur nockud j moote einu Guds Bodorde, sem hun skyllde ecke giora, og verdur so sek,

28. Og fær ad vita syna Synd, sem hun hefur giort, hun skal frammbera til Foornar eina Geit Lastalausa, fyrer þa Synd sem hun hefur giort,

29. Og hun skal leggia sijna Hond a Syndaoffursins Hofud, og slaatra þvi a Brenneoffursins stad.

30. Og Prestarner skulu taka af Bloodenu med sijnum Fingre, og striuka þvi a Brenneforna-Alltaris horn, enn hella ollu Bloodenu nidur hia Alltarisins Fæte,

31. Enn allann Mør skal hann taka þar af, lijka sem hann tok Mørinn af Packarfoornenne, og hann skal Upp kveikia hann a Alltarenu, til eins sæts Ilms fyrer DRottni. Og so skal Presturenn forlijka fyrer hana, og so er þad henne tilgiefed.

32. Enn ef hann ber eitt Lamb framm til Synda Offurs, þa skal hann bera framm eitt Gimbrar Lamb aan Lyta,

33. Og leggia sijna Hond yfer Synda offursins Hofud, og slaatra þvi til Synda offurs, j þeim stad sem Menn plaga ad slaatra Brenneoffre.

34. Og Presturenn skal taka af Bloodenu med sijnum Fingre, og striuka þvi a Hornenn Brennefoornar-Alltarisins og steipe ollu Bloodenu nidur hia Alltarisins Fæte,

35. Enn alla hennar Feite skal hann taka þar af, lijka sem hann took Feitena af Pack-Offursins Lambe, og skal upptendra hana a Alltarenu, til eins Ellds fyrer DRottne, Og so skal Presturenn forlijka hans Synd sem hann giorde, og so er honum þad fyrergiefed.

## V. Capitule.

Løgmaal um Skulldoffur.

Þegar nockur Saal syndgast j þvi, ad hun heyrer nockurn Bølva, og hun er Vitne þar til, edur hefur þad sied eda fornumed, og seiger ecke til, hun er søkud fyrer eitt Brot.

2. Eda nær ein Saal kiennir vid nockud ohreint, hvort þad er helldur eitt Hræ af ohreinu Dyre, eda af Fienade, eda af Skridkvikende, og vissi þad ecke, hann er saurgadur, og hefur syndgad.

3. Eda ef hann hrærer vid eirn ohreinann Mann, hvad hellst ohreinleika, sem einn Mann kann ohreinn af ad verda, og visse þad ecke, og fornemur þad hann er ordenn sekur.

4. Eda nær ein Saal sver, og þad hrijtur af hans Munne, ad giora illa, eda vel, so sem Madur kann ad sveria, fyrr enn hann þad athugar og formerker þad, hann er ordenn sekur j einu af þessu.

5. Enn nær þad skiedur so, ad nockur missier sig um eitt af þessu, og vidurkiennest, ad hann hefur syndgast þar j,

6. Þa skal hann frambera einn Saud, eda eina Geit, af Hiørdenne, fyrer DRottinn, til Synda offurs, fyrer þa Synd sem hann hefur giort, So skal Presturenn forlijka hann um sijna Synd.

7. Enn hafe hann ecke Saudenn til, so bere hann tvær Turtildufur edur tvær ungar Dufur framm fyrer DRottinn, fyrer sijna Synd sem hann giorde, Þa fyrre til Synda-offurs, þa adra til Brenne-offurs,

8. Og bere þær til Prestsins, Hann skal giora þa fyrre til Synda-offurs, og klypa Haalsenn j sundur, fyrer aptan Hnackann, og briota þo ecke fra,

9. Og stockva med Syndoffursins blode uppa Alltarisins sijdu, enn laata Blodid, sem epter er, nidur blæda hia Alltaresins Fæte, þad er Synda Offur.

10. Enn þa adra skal hann giora til Brennefoornar, so sem tilheyrer, Og so skal Presturenn forlijka hann um hans Synd sem hann giorde, og so er honum hun fyrergiefenn.

11. Enn eige hann ecke til tvær Turtildvo-fur, eda tvær ungar Dvofur, Pa skal hann bera framm fyrer sijna Synd sitt Offur, sem er, Hveitemiøl, tijunda part af Epha, til Synda offurs, Enn eckert Oleum skal hann leggia þar uppa, eige helldur Reykelse, þvi þad er eitt Synda-Offur.

12. Og hann skal bera þad til Prestsins, Enn Presturenn skal taka einn Hremming þar af, til minningar, og upptendra þad a Alltarenu, til eins Ellds fyrer DRottni, Þad er eitt Synd-Offur,

13. Og so skal Presturenn forlijka fyrer hans Synd, sem hann giørde, Pa er honum hun fyrergiefinn, Og þad skal heyra Prestenum til, lijka sem eitt Mat-Offur.

14. Og DRottinn mællte vid Mosen, og sagde,

15. Nær ein Saal misgiorer, ad hun forsier sig, og syndgast a þeim hlutum sem DRottni eru vijgder, Pa skal hun bera sitt Skulldoffur til DRottins, eirn Hrvt oan Lyta af Hiordenne, sem ad vera skal ad Verdaurum tveir Sicli Silfurs, epter Helgedoomsins Sicle, til Skulldoffurs.

16. Par til skal hann giefa aptur so miked sem hann syndgadest a þvi vijgda, og giefa enn fimmta Part ad auk, og þad skal hann giefa Prestenum, Hann skal forlijka hann med Skullds-offursins Hrvt, og so fyrergiefst honum þad.

17. Nær ein Saal syndgast, og giorer j moote nockru Bodorde DRottins, þad hun skyllde ecke giora, og visse þad ecke, hun hefur broted, og er skylldug j einum misgiorninge.

18. Hann skal frammbera einn Hrvt af Hiordenne lijtalausann, fyrer Prestenn, þann ed virdest ad Fornfæra meige, j eitt Skullda offur, Hann skal forlijka fyrer hans Ovitsku sem hann giørde, og visse þad ecke, og mun honum þad fyrergiefast,

19. Pad er Skulldoffur, þad sem hann er fallenn j fyrer DRottni.

VI. Cap. 1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Nær ein Saal syndgar, og misgiorer j moote DRottni, ad hann seiger sijnum Naunga nei fyrer þad sem hann bifalade honum, Eda hafe honum vered tiltruad þad ad geyma, Eda ef hann tekur þad med Ofrijke, eda dregur under sig med oriette,

3. Eda hafe hañ funded þad nockud sem tijndt var og seiger nei þar vid, med raungum Eyde, Eda giore nockud annad, hvar med eirn Madur misgiorer j moot sijnum Naunga.

4. Nær þad skiedur, ad hann so syndgar, og verdur sakadur,

5. Pa skal hann giefa aptur þad hann tok med Ofrijke, edur droo under sig med Oriette, eda hvad honum var bifalad, eda hvad sem hann hefur funded, eda þad hann soor um ranglega, þad skal hann allt samann aptur giallda, Par med skal hann giefa fimmtunge meira, þeim sem atte, samdægris, þa hann giefur sitt Skulldoffur.

6. Enn fyrer sijna skulld, skal hann bera fyrer DRottinn, til Prestsins, einn Hrvt af Hiordenne oan Lyta, þann sem anæger til Skulldoffurs.

7. So skal Presturenn forlijka hann, fyrer DRottne, þa mun honum fyrergiefast þad sem hann hefur giort, hvar vt af hann er sekur ordenn.

## VI. Capitule.

Logmaal (I) um Brenne - (II) Matar - og (III) Synda-Offur.

I. 8. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde,

9. Biod þu Aarone og hans Sonum, seigiande, Petta er Brenneoffursins Logmaal. Brennefoornenn skal brennast a Alltarenu, alla Nottena, allt til Morguns, Enn Alltaresins Elldur skal alleinasta brenna þar uppa.

10. Og Presturinn skal færa sig j sinn Lijnkyrtil, og draga sijnar Lijnhosur a sinn Lijkama, Og hann skal burt taka Oskuna, sem

sem Brenne-Offursins Elldur hefur giørt a Alltarenu, og steypa henne nidur hiaa Alltarenu,

11. Sijdann skal hann færa sig af sijnum Klædum, og fara j onnur Klæde, og bera Oskuna vt, vfer Herbuudernar, a einn hreinann stad.

12. Elldurenn skal brenna a Alltarenu, og alldrei slockna, Presturenn skal hvørn Morgun kveikia j Triaam þar uppa, og leggia Brennefoornena þar uppa, og uppteudra Þackoffursins Feite þar uppa.

13. Elldur sa skal eylijflega brenna a Alltarenu, og alldrei slockna.

II. 14. Og þetta er Matoffursins Løgmaal, sem Aarons Syner skulu offra vfer Alltarenu, fyrer DRottni.

15. Þar skal eirn upplypta Hende sinne fullre af Hveite Miole af Matoffrenu, og af Vidsmiore, og ollu samann Reykelsenu, sem liggur uppa Matoffrenu, og skal uppkveikia þad a Alltarenu, til eins Sæts Ilms, DRottni til eirnrar Minningar.

16. Enn Aaron og hans Syner skulu eta þad sem af geingur, og þeir skulu eta þad Osyrt j Helgum stad, j Samkundu-Tialldbuudargardenum.

17. Þeir skulu ecke baka þad med Surdeige, Þvi þad er þeirra Partur, sem eg hefe giefed þeim af mijnu Offre, Þad skal vera þeim þad allra helgasta, so sem Synd-Offur, og Skulld-Offur.

18. Allt Karlkins medal Aarons Barna, skal eta þad, Þad skal vera eitt eylijft Løgmaal ydrum Epterkomendum, um Foornfæringar DRottins, Eingenn skal snerta þad, utann hann sie Vijgdur.

19. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde,

20. Þetta skal vera þad Offur, sem Aaron og hans Syner skulu offra DRottne, a þeim Deige sem hann er smurdur. Hveitemiols Sarla, tijunda Part af einu Epha, sem er daglegt Matoffur, hoalfpart um Morgunenn, og annann helming um Aptaninn,

21. Þad skalltu tilreida med Vidsmiore, j einne Pønnu, og bera þad so steitt framm, Og soddann skalltu offra bakad j Styckium, DROTTne til eins sæts Ilms.

22. Og Presturenn sa sem smurdur er, a medal hans Sona, j hans stad, skal giora þad, Þad er ein eylijf Skickan fyrer DRottni. Þad skal brennast allt samann.

23. Þviad allt Kiennemanna Matoffur, skal med ollu uppbrennast, og eckert etast þar af.

III. 24. Og DROTTenn mællte vid Mosen, og sagde,

25. Tala þu vid Aaron, og hans Sonu, segiande, Þetta er Synda-Offursins Løgmaal. Þu skallt og sloatra Synda-Foornenne j þeim sama stad, sem þu sæfer Brenne-Foornena, fyrer DRottni, Þad er þad Helgasta,

26. Enn Presturenn, sem Synda-Foornena offrar, skal eta þad j helgum stad, j Samkundu Tialldbuudargardenum.

27. Eingenn skal koma vid þad Kiøt, nema sa sem vijgdur er, hver sem þvi Bloode sletter uppa nockud Fat, hann skal þad sem uppa slettist þvo j helgum stad,

28. Og sa Leirpottur sem þad er soded j skal j sundur sloast, Enn sie þad soded j einum Koparpotte, þa skal fægia hann og þvo med Vatne.

29. Allt Karlkins a medal Prestanna skal eta þar af, þvi þad er þad Allra-Helgasta.

30. Enn * allt þad Synd-offur, hvørs Blood sem jnn verdur bored j Samkundu Tialldbuudena, til eirnrar forlijkunar j Helgedomenum, þad skal ecke etast, helldur upp brennast med Ellde. * Ebr. 13, 11.

## VII. Capitule.

Løgmaal (I) um Skullda Offur, og (II) Þackslætes Offur.

I. Og þetta er Skulld-Offursins Løgmaal, og þad er þad Allra-Heilagasta.

2. Mann skal sloatra Skulld-Offur Foornenne, j þeim Stad sem sloatrad er Brenefoor-

nefoornenne, og dreifa Bloodenn þar af i kringum og Alltared,

3. Og allre Feitenne þaraf skal offra, Rosunne og þvi feita af Innislunum,

4. Badum Nijrunum med þeirre Feite sem þar er vid Lendarnar, og Lifrar Netiunne afslitinne med Nijrunum.

5. Og Prestrenn skal upptendra þad a Alltare DROTTins, til eins Ellds, þad er eitt Skuld-Offur.

6. Allt Karlkins a medal Prestanna skal eta þad j Helgum Stad, þvi þad er þad Allra Helgasta.

7. Lijka sem Synda-Offred er, so skal og Skullds-Offred vera, þar skal vera eitt Logmaal um þau bæde, og þad skal heyra Prestenum til, sem forlijkar þar med.

8. Hvor sa Prestur sem foornar nockurs Manns Breune-Offre, hann skal hallda Skinnenu af þvi Brenne-Offre, sem hann hefur offrad.

9. Og so allt Mataroffur sem bakad er j Ofne, eda a Rist, eda j Ponnum, þad skal heyra Prestenum til, þeim sem þad offrar.

10. Og allt Matoffur sem meingad er med Oleo, eda sie þad þurt, skal allt saman heyra Arons Bornum til, so einum sem odrum.

II. 11. Og þetta er Logmaal Packlætis-Foornarennar, sem Menn færa DRottni.

12. Vilie þeir færa Lofsgiordar Forn, þa skulu þeir offra Osyrdum Kokum, meingudum med Oleo, og Osyrdum Leifum, yfirdreifdum med Oleo, og bokudum Hveitis-salla Kokum, blandad med Oleo.

13. Enn þeir skulu giora þetta Offur uppa eina Koku af syrdu Braude, til þeirra Packlætis Lofsgiordar-Offurs.

14. Og skal offra DROTTni eitt af þeim ollum til eins Upplyptingar Offurs, og þad skal heyra Prestenum til, sem stockver Packlætis Fornar Bloodenu.

15. Og Kioted af Lofsgiordar Offrenu, j hans Packlætis Offre, skal upp etast sama Dag sem þad offrast, og ecke neitt skal leifast af þvi til Morguns.

16. Og hvort helldur þad er eitt Heit, eda eitt sialfviliugt Offur, þa skal þad etast þann sama Dag sem þad offrast. Enn ef af er leift, og þar geingur af til annars Dags, þa skal þad og etast,

17. Enn hvad sem leifest af Kiotenu þvi sem offrad er, til hins þridia Dags, þad skal uppbrennast j Ellde.

18. Og ef nockur etur, a þeim þridia Deige, af þvi foornfærda Kiote hans Packlætis Offurs, þa verdur sa ecke þacknæmilegur sem þad offrade. Og þad skal ecke tilreiknast honum, helldur skal þad vera ein Svijvirding, og hvor su Saal sem þar etur af, hun er sekud j einum Misgiørninge.

19. Og þad Kiot sem snerter nockud ohreint skal ecke etast, helldur uppbrennast j Ellde. Hvor sem er hreinn, a sijnum Lijkama, hann skal eta þad Kiot,

20. Og hvor Saal sem etur Kioted af Packlætis Offrenu, sem heyrer til Drottni, þa skal hennar Ohreinleike vera yfer henne, og hun skal fyrerfarast fra sijnu Foolke.

21. Og ef nockur Saal kiemur vid nockud ohreint, sie þad ohreinn Madur, Fienadur, eda hvad annad sem ad er svijvirdulegt, og etur hann af Packlætisfornar Kiote, sem ad tilheyrer DROTTni, hann skal upprætast fra sijnu Folke.

22. Og DROTTinn mællte vid Mosen, og sagde.

23. Tala þu vid Israels Born, og seig þu þeim, þier skulud eckert þad Feita eta af Uxunum, Lombum og Geitum.

24. Enn þad Feita af Hræunum, og hvad rifed er af Villudyrum, þad meiged þier hafa ydur til allshoattadrar Nytsemdar, enn eige skulud þier eta þad.

25. Þvi hvor sem etur þad Feita af Fienadenum, þeim sem DROTTni er giefenn til Offurs, su Saal skal upprætast fra sijnu Folke.

26. Eige skulud þier helldur eta Blooded, hvorke af Fie, nie Fuglum, hvar hellst sem þier bwed.

27. Hvor su Saal sem nockurn Tijma etur Blood, hun skal upprætast fra sijnu Folke.

28. Og DROTTinn mællte vid Mosen, og sagde,

29. Tala þu vid Jsraelis Born, og seig so, Hvor sem vill færa Packlætis Foorn DROTTne, þa skal hann bera med sier hvad sem heyrer til Packlætis Offrenu, fyrer DROTTni. Enn hann skal bera þad framm med sinne Hende, til Offurs DROTTNI,

30. Sem er, þad Feita a Bringunne skal hann bera framm, og Bringuna, so þad sie ein Upplypting fyrer DROTTne.

31. Og Presturenn skal upptendra þad Feita a Alltarenu, enn Bringann skal heyra Aarone og hans Sonum til.

32. Og þeir skulu giefa Prestenum þann hægra Boog, til Upplyptingar, af þeirra Packar-Offre.

33. Enn hvor af Aarons Sonum sem offrar Blodenu, af Packlætis Foornenne, og þvi enu Feita, hann skal hafa þann hægra Boog til sijns Hlutar,

34. Þvi eg hefe teked Veifunar Bringuna, og Upplyptingar Boogenn fra Jsraelis Bornum, af þeirra Packar-Offre, og hefe giefed Prestenum Aaron, og hans Sonum þad, til eirnrar eylijfrar Skickunar.

35. Þetta er Aarons og hans Sona Smurning, af DROttins Fornfæringum, a þeim Deige sem þeir voru Skickader til Kiennemannsskapar DROttins,

36. Þa er DROTTinn baud, a þeim Deige, þa hann smurde þa, þad honum skyllde giefast af Jsraels Bornum, til eins eylijfs Riettar, hia ollum þeirra Epterkomendum.

37. Og þetta er Logmaal um Brenne-foornernar, Matfoornernar, Syndafoornernar, Skulldafoornernar, Fyllingar-Foorner, og Packlætis Foorner,

38. Sem DROTTinn baud Mose, uppa Sinai Fialle, þann Dag, sem hann gaf honum Bifalning til Jsraelis Barna, ad þeir skylldu færa DROTtni þeirra Foorner, j Eydemorku Sinai.

# VIII. Capitule.

Um Vijgslu Kennemannanna.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tak Aaron og hans Sonu med honum, og þeirra Klæde og Smurningar Oleum, og eirn Uxa til Synda Offurs, Tvo Hrwta, og eina Korf med Osyrt Braud,

3. Og samansafna ollum Almwganum utann fyrer Samkundu-Tialldbwdar Dyrum.

4. Moses giorde sem DROTTinn baud honum, og samansafnade ollum Almwganum fyrer Samkundu-Bwdardyrunum,

5. Og sagde til þeirra, þetta er þad sem DROTTINN hefur boded ad giora.

6. Og hann tok Aaron og hans Sonu, og þvode þa j Vatne,

7. Og færde hann j Lijfkyrtelenn, og umgyrdte hann med einu Bellte, og færde hann j Silke Mottulenn, og liet yfer hann Lijfkyrtelenn, og gyrdte hann utann yfer Lijfkyrtelinn,

8. Og hann heingde Briostskiolldenn uppa hann, og j Briostskylldenum Liosed og Riettenn,

9. Og hann sette Hattenn uppa hans Hofud, og sette þa Gullspaung af þeirre Helgu Koronu a Hattenn, ofann a hans Enne, sem DROTTINN hafde boded Mose.

10. Og Moses tok Smurningar Oleum, og smurde Tialldbwdena, og allt þad sem þar var jnne og vijgde þad.

11. Og hann stockte Sio Reisur a Alltared þar af, og smurde Alltared, og allt þad sem þar til heyrde, Laugarkiered med sijnum Fæte, ad þad være vijgt.

12. Og hann hellte Smurningar Oleo

yfer Aarons Hofud, og smurde hann, so ad hann være vijgdur,

13. Og leidde Aarons Syne þar ad, og færde þa j Lijnkyrtla, og gyrdte þa med Bellte, og sette Hoofurnar uppa þa, sem DROTtinn hafde boded honum.

14. Og hann liet leida einn Uxa framm, til Synda-Offurs, og Aaron og hans Syner løgdu sijnar Hendur yfer hans Høfud,

15. Og so var honum slaatrad. Og Moses tok af Bloodenu og strauk þvi um Alltaris Hornenn, riett umkring med sijnum Fingre, og hreinsade Alltarid. Og hann hellte Blodenu nidur hia Alltarenu, hia þess Fæte, og vijgde þad til Forlijkunar.

16. Og hann tok allt þad sem feitt var af Innislunum, Lifrarnetiuna, og þau Tvo Nyrunn, med Nijrna Mørnum, og upptendrade þad a Alltarenu.

17. Enn Uxann med hans Hwd, Kiøte og Myke, brennde hann med Ellde fyrer utann Herbwodernar, so sem DROTTinn hafde boded honum.

18. Og hann leidde einn Hrwt framm til Brenneoffurs, og Aaron og hans Syner løgdu sijnar Hendur yfer hans Høfud,

19. Og so var honum slaatrad, og Moses støckte Blodenu umkring a Alltared,

20. Og hioo Hrwtenn j stycke, og upptendrade Hø:uded, Styckenn og Kroppenn,

21. Enn hann þwode Innisllenn og Fæturnar j Vatne, og upptendrade so allann Hrwtenn a Alltarenu. Þad var eitt Brenneoffur, til Sætleiks Ilms, og einn Elldur fyrer DROTTNI, sem DROTTINN hafde boded honum.

22. Hann leidde og þann annann Fyllingar-Offurs Hrwtenn framm. Og Aaron med sijnum Sonum løgdu Hendur yfer hans Høfud,

23. Og so var honum slaatrad. Og Moses tok af hans Blode, og smurde a Aarons hægra Eyrna Snepel, og a hans hægra Pumalfingur, og a hans hægre Pumaltaa.

24. Og hann leidde Aarons Syne framm, og smurde af Bloodenu, a þeirra hægra eirna Snepil, og a þeirra hægra Pumal-fingur, og a þeirra hægre Pumal-taa, og dreifde Bloodenu riett umkring a Alltarenu.

25. Og hann took þad ed Feita, og Roofuna, og allann Mørenn af Innislunum, og Lifrarnetiuna, og bæde Nyrunn, og þad Feita þar med filgde, og þann hægra Bogenn.

26. Þar til tok hann og af Korfenne, þess Osyrda Brauds, fyrer DROTTni, Osyrda Koku eina, og eina Koku af þvi Braude sem meingad var med Oleo, og einn Leif, og lagde þetta ofann a þad Feita, og ofann a þann hægra Bogenn,

27. Og fieck Aarone og hans Sonum þad alltsamann j Hendur, og veifade þvi til Veifunar fyrer DROttne.

28. So tok hann þad alltsaman aptur af þeirra Høndum, og uppkveikte þad a Alltarenu, ofann uppa Brennefornenne, þvi þad er eitt Fyllingar-Offur, til eins Sæts Ilms, eirn Elldur fyrer DROttni.

29. Og Moses tok Bringuna, og veifade Veifingu, fyrer DROTni, af Fyllingar-Offurs Hrwtnum, og þad fieck Moses j sinn Part, sem DROTTinn hafde boded honum.

30. Og Moses tok af Smurningar Oleo, og af Blodenu af Alltarenu, og støckte a Aaron og a hans Klæde, a hans Sonu og þeirra Klæde,

31. Og vijgde so Aaron og hans Klæde, hans Syne, og þeirra Klæde med honum, og sagde til Aarons og hans Sona, Matgiored Kiøted fyrer utann Samkundu-Tialdbwdardyrnar, og eted þad j sama Stad, med þvi Braude, sem er j Fylle-Offursins Korf, sem mier er bifalad og sagt, ad Aaron og hans Syner skule eta þad.

32. Enn hvad sem leifest af Kiøtenu og Brau-

Braudenu, þad skulud þier uppbrenna med Ellde.

33. Og j Sio Daga skulud þier ecke ganga wt um Samkundu-Bwdardyrnar, fyrr enn ydar Fyllt-Offurs Dagar eru fullkomner,

34. Hviad ydar Hendur eru (a) Fylltar j Sio Daga, so sem nu er skied uppa þennann Dag. DROTTinn bifalade so ad giora, uppa þad ad þier skulud vera forlijkter,

(a) (Fylltar) Hendur ad fylla, er Ebreskt mœltæke, og var sierleg vijsa, hviad Prestanna Hendur þa þeir voru Vijgder, voru fylltar af Foornenne fyrer DROttne.

35. Og þier skulud vera Sio Daga fyrer Samkundu-Bwdardyronum, Dag og Noott, og skulud DROTtins Vardhallds giæta, so þier deyed ecke, þvi so er þad mier boded.

36. Og Aaron og hans Syner giordu allt þad sem DROttinn hafde boded fyrer Mosen.

## IX. Capitule.

Hin Firsta Forn Aarons eydest i Ellde.

Og a þeim aattunda Deige kallade Moses Aaron og hans Syne, og þa ellstu af Jsrael,

2. Og sagde til Aarons, Tak þier einn unganKalf, til Syndaoffurs, og eirn Hrwt, til Brenneoffurs, hvortveggia aan Lyta, og leid þa fyrer DRottinn.

3 Og tala vid Jsraels Born, seigiande, Taked eirn Kiarnhafur til Synda-Offurs, og eirn Kalf, og eirn Saud, hvortveggia veturgamallt, Lytalaust, til Brenneoffurs,

4. Og eirn Uxa, og eirn Hrwt, til Þackaroffurs, so vier kunnum ad foornfæra fyrer DRottni, og eitt Matoffur blandad med Oleo, þvi DRottinn mun j Dag birtast fyrer ydur.

5. Og þeir toku þad sem Moses hafde boded, utan fyrer Samkundu-Tialldbwdardyrunum: Og allur Sofnudurenn gieck framm, og stod fyrer DRottni.

6. Þa sagde Moses, Þetta er þad sem DRottinn hefur boded ad giora, Og so skal Dyrd DRottins birtast ydur.

7. Og Moses sagde til Aarons, Gack framm til Alltaresins, og fær þijna Syndafoorn, og so þijna Brennefoorn og gior eina Forlijkun fyrer þig, og fyrer Folked, og fær siidan Folksins Forner, og forlijka og so fyrer þa, so sem DRottinn hefur boded.

8. Og Aaron gieck til Alltaresins, og slafde Kalfenn til sijns Synda-offurs.

9. Og hans Syner baaru Blooded til hans, og hann drap sijnum Fingre j Blooded, og reid þvi a Horn Alltaresins, og hellte Bloodenu nidur hiaa Alltaresins Fæte.

10. Enn Feitena, og Nyrunn, og Lifrarnetinna til Syndaoffurs, upptendrade hann a Alltarenu, sem DRottinn baud Mose,

11. Enn Kioted og Skinned brennde hann med Ellde, fyrer utann Herbwdernar.

12. Sijdan slaatrade hann Brenneforenne, Og Aarons Syner baaru Blooded til hans, og hann stockte þvi riett um kring Alltared.

13. Og þeir baaru Brennefoornena til hans hoggna j Stycke, og Hofuded. Og hann upptendrade þad a Alltarenu,

14. Og hann þvode Jnniflenn og Fæturnar, og brennde þad ofann a Brenneoffred a Alltarenu.

15. Sijdann bar hann Folksins Foorn framm, og took Kiarnhafurenn, sem var Folksins Synda offur, og slaatrade honum,

16. Og giorde eitt Syndaoffur þar af, so sem hitt aadur.

17. Og hann bar Brenneoffred framm, og giorde vid þad sem skickad var, og hann bar Matoffred framm, og tok sijna Hond fulla, og uptendrade þad a Alltarenu, ad auk Morgunsins Brenneoffurs.

18. Sijdann slaatrade hann Uxanum og Hrwtnum, til Folksins Þacklætis Offurs, og hans Syner baaru Bloded til hans, þvi stockte hann riett um kring a Alltared,

19. Enn þad Feita af Uxanum og Hrwtnum,

num, Rosuna og þad feita a Innislunum, og Nyrunn og Lifrarnetiuna,

20. Allt þad feita lagde hann a Bringuna, og uppkveikte þad Feita a Alltarenu.

21. Enn Bringunne og þeim hægra Bognum veifade Aaron til Veifunar fyrer Drottni, Lijka sem DRottinn hafde boded Mose.

22. Og Aaron upplypte sinne Hende til Folksins, og blessade þad, og gieck so ofann, þa hann hafde giort Syndaoffred, Brenneoffred, og Packaroffred.

23. Og Moses og Aaron geingu jnn j Samkundu-Tialldbudena, Og þa þeir geingu vt aptur, blessudu þeir Folked. Pa openberade sig Dyrd DRottins fyrer ollu Foolke,

24. Þvi Ellldurenn kom fra DRottni, og uppbrennde Brenne-foornena, og þad Feita a Alltarenu, Enn sem allur Lydurenn saa þad, vard hann miog gladur, og fiell framm a sijnar Asionur.

## X. Capitule.

Nadab og Abihu verda uppbrennder.

Enn Aarons Syner, Nadab og Abihu, toku hvor sitt Glodarkier, og logdu Elld þar j, og logdu Reykelse þar a, og baaru annarlegann Elld fyrer DRottinn, hvad hann hafde ecke boded þeim.

2. Pa kom þar einn Ellldur fra DRottni og brennde þa, so þeir doou fyrer DRottne.

3. Pa sagde Moses til Aaron, Þetta er nu þad sem DRottinn hefur sagt, Eg mun Heilagur verda a þeim sem naalgast til mijn, og eg vil vera Dyrdarlegur fyrer ollu Folke. Og Aaron þagde.

4. Enn Moses kallade Misael og Elzaphan, sem voru Syner Usiel, Aarons Fodur Brodurs, og hann sagde til þeirra, Ganged framm og bered ydar Brædur burt af Helgedomenum, vt fyrer Herbudernar.

5. Og þeir fooru til, og baaru þa vt fyrer Herbuderner, jklædda þeirra Lijnkyrtlum, sem Moses hafde sagt

6. Pa sagde Moses til Aarons og hans Sona Eleazar og Ithamar, Þid skulud ecke ber giora ydar Hofud, eige helldur j sundur rijfa ydar Klæde, so þid deyed ecke, og ad þar kome ecke Reide yfer allann Sofnudenn, Laated ydar Brædur af ollu Israelis Huse graata yfer þessum Bruna, sem DRottinn hefur giort.

7. Enn þid skulud ecke ganga vt af Samkundu Tialldbudar Dyrum, so þid skulud ecke deya, Þviad DRottins Smurningar Oleum er a ydur. Og þeir giordu sem Moses baud.

8. Enn DROTTinn talade vid Aaron, og sagde,

9 Þu og þijner Syner med þier skulu ecke drecka Vijn, eda nockurn annann aafeingann Dryck, þa þier gangid j Samkundu-Tialldbudena, so ad þier skulud ecke deya, Pad skal vera einn eylijfur Riettur, hia ollum ydar Epterkomendum.

10. So þier meiged giora Grein a millum þess sem er Heilagt eda Oheilagt, og j millum þess Hreina og Ohreina.

11. Og ad þier meiged kienna Israelis Bornum allar þær Skickaner, sem DRottinn hefur sagt til ydar fyrer Mosen.

12. Og Moses talade vid Aaron, og vid hans Sonu Eleazar og Ithamar sem epter voru orđner, Taked þad Matoffur sem leifdest af Herrans Offre, og eted þad Osyrt vid Alltared, þvi þad er þad Allra-Helgasta.

13. Enn þier skulud eta þad, j einum helgum Stad, Þvi þad er þinn Riettur, og þinna Sona Riettur, af Herrans Offre, Þvi so er mier boded.

14. Enn Veifunarbringuna, og Upplyptingar Boogenn skalltu og þijner Syner, og þijnar Dætur med þier, eta j einum hreinum Stad, Þviad þier og þijnum Bornum er soddann Riettur giefenn, af Israels Barna Packlætis offre,

15. Þvi Upplyptingar Boogurenn, og Veifunar Bringann til Feitleikans-Offurs skal berast framm, so þvi sie veifad til eirnrar Veifunar, fyrer DRottni, Þvi heyrer þad

 þier,

þier, og þijnum Bornum til, med eylijfum Riettindum, so sem DROTTinn hefur boded.

16. Og Moses leitade epter Hafrenum, til Synda Offursins, og fann hann upp brennдann, og hann vard reidur uppa Aarons Syne, Eleazar og Ithamar, þeir sem þa epter lifdu, og sagde,

17. Pvi hafed þier ecke eted Synda Offred, a einum heigum Stad, þvi þad er þad Allra Helgasta. Og hann hefur giefed ydur þad, ad þier skulud bera Almoogans Synder, so þier kynnud ad forlijka þa fyrer DROTTNE.

18. Sioed hans Blood (a) er ecke komed jnn j Helgedoomenn, þier skylldud hafa eted hann j Helgedomenum, so sem mier er bijfalad.

(a) (Hans Blood) Med þvi hans Blood var ecke bored jnn j Helgedomenn, þa skyllde þad Offrada ecke brennast, helldur etast, enn hvørs Blood sem var jnn bored, þad mætte ecke etast, helldur skyllde þad brennast allt saman.

19. Enn Aaron sagde til Mosen, Sioa, J Dag hafa þeir Offrad sijnu Synda-Offre, og sijnu Brenneoffre, fyrer DRottni, enn mig hefur hendt sem þu sier, og hefde eg etid af Synda Offrenu j Dag, munde þad hafa þocknast fyrer DRottni?

20. Enn þa Moses þad heyrde, þa liet hann sier þad lynda.

## XI. Capitule.

Mismunur a Hreinum Dyrum og Ohreinum.

Og DRottinn mællte vid Mosen og Aaron, og sagde til þeirra,

2. Taled vid Israels Born og seiged, Pesse eru Pau Dyr sem þier skulud eta a medal allra Dyra a Jordunne.

3. Allt þad sem er Tvijklaufad og Joortrar a medal Dyranna, þad skulud þier eta.

4. Enn hvad sem joortrar, og hefur Hoof ecke tvijkleyfdann, sem er Ulfalldenn, þad er ydur Ohreint, Og ecke skulud þier eta þad.

5. Caninur tyggia ad sonnu Joortur, enn hafa þo ecke Klaufer, þar fyrer eru þær Ohreinar.

6. Hierenn joortrar, enn hann hefur þo ecke Klaufer, og þvi er hann ydur Ohreinn.

7. Og Svijned hefur Klaufernar, enn þad joortrar ecke, og þvi skal þad vera ydur ohreint.

8. Pier skulud ecke eta af þeirra Kiote, og ei helldur snerta vid þeirra Hræ, þvi þau eru ydur ohrein.

9. Enn þetta skulud þier eta, af þvi sem er j Vatnenu, Allt þad sem hefur Sund-Ugga og Hreistur, j Vatnenu, j Sionum, og j fliotande Votnum, þad skulud þier eta.

10. Enn allt þad sem ecke hefur sundugga og hreistur, j Sionum og Votnonum, a medal alls sem sig hrærer j Vatnenu, og þad sem lifer j Vatnenu,

11. Pad skal vera ydur ein Andstyggd, so þier skulud ecke eta af þeirra Kiote, og þier skulud fordast þeirra Hræ,

12. Pvi allt þad sem ecke hefur Ugga og Hreistur j Vatnenu, þad skulud þier fordast.

13. Enn a medal Fuglanna skulud þier þessa fordast, so þier þa ecke eted, Aurnena, Haukenn, Sioafar-Aurnena,

14. Gioodenn og Glentann, og hvad sem er af hans Kine,

15. Alla Hrafna med sinne Tegund,

16. Strutz-Fuglenn, Noattugluna, Gaukenn, Valenn, med sinne Tegund,

17. Steinugluna, Alstena, Hornugluna.

18. Flædarmoosena, Moosarbroodurenn, Skadann,

19. Storkinn, og Hegrann med sinne Tegund, Veidehoppuna og Svoluna,

20. Og allt þad sem hrærest a medal Fuglanna, og skrijdur a Fiorum Footum, þad skal vera svijvirdulegt fyrer ydur.

21. Po skulud þier þetta eta af þeim Fuglum sem hræra sig, og ganga a Fioorum Footum, og hoppa ecke a Jordenne med tveimur Footum,

22. Af þeim somu meiged þier eta, sem er

er (a) Arbe med sinne Tegund, og Selaam med sinne Tegund, og Hargol med sinne Tegund, og Hagab med hennar Tegund.

(a (Arbe) Þesse Fiogur Dyr eru ecke j vorum Londum, enn þo ad Arbe og Hagab sieu halldinn almenneliga ad vera Gras-Hoppur, sem eru Fitfœtter Fuglar, enn þad er ovallkara, ad bijhallda þeim Ebreſku Nöfnum, so sem vier giorum j þvi Orde Halleluja, og ödrum Ordum j annarlegum Tungumaalum.

23. Enn allt annad, þad sem hefur Fiorar Fætur a medal Fuglanna, þad skal ydur vera svijvirdulegt, og þier skulud hallda þad ohreint.

24. Og hvor sem snerter vid soddann eitt Hræ hann skal vera ohreinn til Kvollds.

25. Og ef einhvor ber nockud af þeirra Hræe, hann skal þvo sijn Klæde og vera ohreinn til Kvollds.

26. Þar fyrer skulu öll Dyr sem hafa Klaufer, og ecke eru tvijklaufud, og ecke Jortra, vera ohrein fyrer ydur. Og hvor sem snerter þau hann skal vera ohreinn.

27. Og allt þad sem geingur aa sijnum Hrömmum, aa medal þeirra Dyra sem ganga aa Fiorum Footum, skal vera ydur ohreint, og hvor sem snerter þeirra Hræ hann skal vera ohreinn til Kvollds.

28. Og hvor hann ber þeirra Hræ hann skal þvo sijn Klæde, og vera ohreinn til Kvollds, þvi soddann er ydur ohreint.

29. Þesse skulu og vera ydur ohrein a medal Dyranna, sem skrijda a Jordunne, sem er, Hreisekötturenn, Mwsenn, Paddann, hvort med sinne Tegund,

30. Pyndsvijn, Molkormurenn, Öglarenn, Egellenn, og Molldvarpann.

31. Þetta er ydur ohreint, a medal alls þess sem skrijdur, hvor sem snerter vid þeirra Hræ, hann skal vera ohreinn til Kvollds.

32. Og allt þad sem eitt soddan dautt Hræ fellur yfer, þa er þad ohreint, hvort helldur þad er Triekier, Klæde, Skinn, eda Secker, og öll önnur Verkfære, sem til nockurs Gagns eru höfd, skal leggiast j Vatn, og er saurugt til Kvollds, þar epter er þad hreint.

33. Ef soddann eitt Hræ fellur j nockurs hꜳttar Leirkier, þa er þad allt ohreint sem j þvi er, og skal j sundursleast.

34. Kome soddan Vatn j nockurn Mat, þann etenn verdur, þa er hann ohreinn, Og allur sꜳ dryckur sem druckenn verdur, af hvorskonar soddann Kiere, er ohreinn.

35. Og allt þad sem soddann Hræ fellur yfer, verdur ohreint, sie þad Ofn eda Kietell, þa skal þad j sundurbriota, þvi þad er ohreint, og skal vera ydur ohreint.

36. Enn þo eru Brunnar, Uppsprettur, og Læker hreiner, enn hvor sem snerter þeirra Hræ, hann er ohreinn.

37. Og ef nockud soddann Hræ fellur uppa nockud Kornsæde, sem sꜳd er, þa er þad þo hreint,

38. Enn ef Menn ausa Vatne yfer Sꜳded, og falle sijdann nockud soddann Hræ þar yfer, þa er þad ydur ohreint.

39. Pa nockurshꜳttar Dyr deyr, þad sem ydur er Ætt, og hvor sem kiemur vid þess Hræ, hann er ohreinn til Kvollds.

40. Enn hvor sem etur af soddann Hræe, hann skal þvo sijn Klæde, og er ohreinn til Kvollds, lijka og hvor sem ber soddann Hræ, hann skal þvo sijn Klæde, og vera ohreinn til Kvollds.

41. Þad sem skrijdur framm a Jordenne, þad skal vera ydur svijvirdulegt, og Menn skulu ecke eta þad,

42. Og allt þad sem skrijdur a Kvidnum, og allt þad sem geingur a Fioorum edur fleyrum Footum, a medal allra þeirra Dyra sem skrijda framm a Jordunne, skulud þier ecke eta, þvi þad skal vera ydur svijvirdulegt.

43. Giored ecke ydar Sꜳler vidurstyggelegar, og giored ydur ecke ohreina aa þeim, so ad þier saurged ydur.

44. Þvi eg er DROTTinn ydar Gud, þar fyrer skulud þier helga ydur, so þier sieud heilager, þviad Eg er Heilagur. Og þier skulud

skulud ecke giora ydar Saaler ohreinar, a nockru skriðandi Dyre sem skrijdur a Jordunne.

45 Þvi eg er DROttinn, sem wtleiddi ydar af Egyptalande, til þess, ad eg sie ydar GUD, þar fyrer * skulud þier vera heilager, þviad Eg em Heilagur. *1 Pet. 1, 15. 16.

46. Þesse eru Logenn, um Dyr og Fugla, og allskonar Kvikende sem skreidast j Vatnenu, og so um allrahanda Kvikende sem skrijda a Jordunne,

47. So þier kunned ad giora grein a milli um þess sem er Hreint og Ohreint, Og hvor Kvikende æt eru, og hvor ad sie oæt.

## XII. Capitule.

Logmaal um Sængur-Konu.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala vid Israels Born, seigiande, Nær ein Kvinna fær gietnad, og fæder Sveinbarn, þa skal hun vera sio Daga ohrein, so leinge sem hun er j sijnum Siukdome.

3. Og a * áttunda Deige skal umskiera Holld hans Yserhwdar. *Luc 1, 59. c. 2, 21. Joh. 7, 22.

4. Og hun skal vera heima j þria og þriatijer Daga, j Bloode sinnar Hreinsunar. Hun skal ecke koma * vid nockud það sem heilagt er, og ecke skal hun koma til Helgedomsins, fyrr enn hennar Hreinsunar-dagar eru enader. *Luc. 2, 22.

5. Enn ef hun fæder eitt Meybarn, þa skal hun vera ohrein tvær vikur, so leinge sem hun er j sijnum Siukdome, og hun skal vera heima j sijnu Hwse sex og sextiju Daga, j Bloode hennar hreinsunar.

6. Og þa hennar Hreinsunar dagar eru wte fyrer Son, eda fyrer Dottur, þa skal hun bera framm eitt Veturgamallt Lamb, til Brennefoornar, og eina unga Dwfu, eda eina Turtildwfu til Syndaoffurs, til Prestsins, fyrer Samkundu-Tialldbwdar dyrnar.

7. Hann skal offra þvi fyrer DRottni, og forlijka hana, og so er hun hrein af sijnu Bloodlaate. Þetta er Logmaal um þa Konu sem fæder Son edur Dottur.

8. Enn eige hun ecke til Lambid, þa take hun sier tvær Turtildwfur, eda tvær ungar Dwfur, adra til Brenneoffurs, enn adra til Syndaoffurs, so skal Presturenn forlijka hana, so ad hun verde hrein.

## XIII. Capitule.

Lijkþráár Teikn (I) a Monnum, og (II) a Fotum.

1. Og DRottinn talade vid Mosen, og Aaron, og sagde,

2. Þa nockur Madur fær Bolgu j Hwd Hollds sijns, eda Klaada, eda hvijtnar hans Holld, so sem það vilde verda Spitelska, a Hwd hans Hollds (a), Þa skal leida þann Mann fyrer Prestenn Aaron, eda fyrer einn af hans Sonum a medal Prestanna.

(a) Hier er auglioßt, ad Moses kallar Spitelsku allra handa skurfur, Vos, Klaada, edur Teikn, af hvorium Lijkþráá kann ad koma, edur er eins ad sia sem Lijkþráá.

3. Og þa Presturenn sier Teikned a Hörunde hans Hollds, ad Hááred hvitnar, og ad það er diwpara til ad sia, a þeim stad, enn onnur Hwd a hans Hollde, þa er það vissulega Lijkþráá, Þar fyrer skal Presturenn skoda hann, og dæma hann Ohreinann.

4. Enn sie þar nockur hvijtur Fleckur a Hörunde hans Hollds, og er þo ecke diwpara til ad sia, enn hans annad Skinn a Hollldenu, og Hááred hvijtnar ecke, þa skal Presturenn byrgia hann inne j sio Daga,

5. Og skoda hann a þeim siounda Deige. Sie það so, ad Teikned blijfur samt sem fyrre syndest, og það hefur ecke framar inn-eted sig a Horundenu,

6. Þa skal Presturenn byrgia hann inne j adra sio Daga. Og þa hann skodar hann enn j annann tijma, a þeim siounda Deige, og formerker hann, ad Fleckurenn er j burt horfenn, og hefur ecke vijdar inn-eted sig a

Hørundenu, þa skal hann dæma hann hreinann vera, þvi þad er Kloade, og hann skal þvo sijn Klæde, og þa er hann Hreinn.

7. Og þegar sa Kloade etur sig vidara wt a Hwdenne, sijdann hann var skodadur af Prestenum, og dæmdur hreinn, enn er nu j annann tijma skodadur af Prestenum, og ef Presturenn sier þad, ad Kloadenn hefur eted sig vijdar jnn j Hørunded,

8. Þa skal hann dæma hann ohreinann, þvi þad er vissulega Spitelska.

9. Ef nockurt Spitelskt Teikn er a Manne, þa skal leida hann til Prestsins.

10. Og nær hann sier og formerker, ad þar er hvijtt upp hlauped a Skinnenu, og Hoared er hvijtnad, og þar er hraust Kiöt j Soarenu,

11. Þa er þad vissulega ein gømul Lijkþraa j Hørunde hans Hollds. Þar fyrer skal Presturenn dæma hann ohreinann, og ecke byrgia hann jnne, þvi hann er allareidu ohreinn.

12. Enn þegar Spitelskann brytst wt j Hørundenu, og hylur (b) allt Hørunded, fra Hofdenu allt til Footanna, allt þad sem Presturenn maa sioa med Augunum,

(b) (Allt Hørunded) þesse Spitelska heiter hrein, þvi þad er heilbrigdur Lijkame, sem sö hreinsar sig sioalfur, so sem ad skiedur i kresdu, boolu, Fleidrum og Skurfum, þegar veilsann slær sier ut af ollum lijkamanum, so madur seiger, ad þad sie heilnæmt, og etc.

13. Sier þa Presturenn og finnur, ad Spitelskann hefur huled allt hans Hollld, þa skal hann dæma hann hreinann, þviad þad er orded alltsaman hvijtt a honum, þvi hann er hreinn.

14. Enn er þad raudt Holld Boolged, a þeim Deige sem hann er skodadur, þa er hann ohreinn,

15. Og þa Presturenn sier þad hrausta Kviku-Holld, þa skal hann dæma hann ohreinann, þviad hann er ohreinn, og þad er vijst Spitelska.

16. Enn ef þad Kviku-Holld umbreitest og verdur hvijtt,

17. Þa skal hann koma til Prestsins, og þa Presturenn skodar og formerker, ad Teikned er orded hvijtt, þa skal hann dæma hann hreinann, þvi hann er hreinn.

18 Vaxe þar Kyle a nockurs Manns Hollds Hwd, og læknast aptur,

19. Og þar kiemur upp sijdan nockud hvijtt j þeim sama Stad, eda verde þar hvijtraudur Fleckur, hann skal skodast af Prestenum,

20. Sioae þa Presturenn, ad þad er diupara ad sioa, enn hans annad Hørund, og ad Hoared er orded hvijtt, þa skal hann dæma hann ohreinann, þviad þad er eitt vijst Teikn, ad Spitelska er ordenn af Kylenu.

21. Enn sioae Presturenn, og finne, ad Hoared er ecke hvijtt, og ad þad er ecke diupara enn annad hans Hørund, og er horfed, þa skal hann byrgia hann jnne j Sio Daga.

22. Og ef þad etur sig þa vijdara wt j Hørundenu, þa skal hann dæma hann ohreinann, þvi þad er vissulega Spitelsku Teikn.

23. Enn blijfe sa hvijtraude Fleckur so samt, og etur ecke vijdara um sig, þa er þad Ored af Kylenu, og Presturenn skal dæma hann hreinann.

24. Þegar nockur brenner sig a Ellde a Skinnenu, og þad Holld er brann hefur raudt eda hvijtt Or,

25. Og Presturenn skodar hann, og formerker, ad Hoared er orded hvijtt a þeim Stad sem brann, og er diwpara til ad sioa, helldur enn annad Hørund, þa er þar sannlega ordenn ein Spitelska af þeim Brunа, þar fyrer skal Presturinn dæma hann ohreinann, þvi þad er Spitelskt Teikn.

26. Enn sioae Presturenn og finne, ad Hoared a þeim brennda Stad hefur ecke umskiptst j hvijtt, og er ecke diwpara enn annad Hørund, og er þar med j burt horfid, þa skal hann byrgia hann jnne j Sio Daga,

27. Og þann Siounda Dag skal hann skoda hann, Hafe þad þa vijdara vtstreckt sig a hans Horunde, þa skal hann vorskurda hann ohreinann, þvi þad er Spitelska.

28. Enn hafe þad vered kirrt a þeim Brunastad, og ecke vijdara etid sig jnn a Horundenu, og er þarmed horfed, þa er þad Ør af Brunanum, og Presturenn skal dœma hann hreinann, þvi þad er eitt Ør af þeim Bruna.

29. Verde nockur Madur eda Kvinna skurfottur a Hofdenu, eda j Skieggenu,

30. Og Presturenn skodar Teikned, og finnur, ad soa Stadur er diwpare helldur enn annad Skinn til ad sioa, og Hoared a sama Stad er gult og þunnt, þa skal hann dœma hann ohreinann, þvi þad er Spitelsk skurfa a Hofdenu eda j Skieggenu.

31. Enn sioae Presturenn, ad Skurfann er ecke diwpare til ad sioa enn Skinned, og Hoared er ecke dockt, þa skal byrgia hann jnne j Sio Daga.

32. Og þa hann skodar þad a enum Siounda Deige, og formerker, ad sama Skurfa hefur ecke vijdar jnn eted sig, og þar eru eingenn gul Hoar, og Skurfann er ecke diupare til ad sioa enn annad Horund,

33. Þa skal hann raka sier, þo hann rake ecke skurfuna. Og Presturenn skal lykia hann jnne aptur j Sio Daga,

34. Og þa hann skodar hann a þann Siounda Dag, og formerker ad Skurfann hefur ecke vijdar uteted sig a Skinnenu, og ad þad er ecke diwpara til ad sioa, enn hin onnur Hwdenn, þa skal Presturenn seigia hann hreinann, og hann skal þvo sijn Klæde, þvi hann er hreinn.

35. Enn sie þad so, ad Skurfann ete sig vijdara vt a Horundenu, sijdann hann er dæmdur hreinn, og Presturenn siae þad, og formerker, ad Skurfann hefur so vijdara jnn eted sig a Horundenu,

36. Þa skal hann ecke meir leita þar epter, hvort Hoared sie gult, þvi hann er ohreinn.

37. Enn sie Skurfann kirr fyrer hans Augum, og þar er dockt Hoar uppa vaxed, þa er skurfann læknud, og hann er hreinn, og þar fyrer skal Presturenn seigia hann hreinann.

38. Nær einn Madur eda Kvinna, hefur nockurn hwijtraudann fleck a Hwd sijns Hollds,

39. Og Presturenn skodar þad sama, ad soa hvijte Fleckur j burt hverfur, þa er ein hvijt Skurfa uppvaxenn j Skinnenu, og hann er hreinn.

40. Enn nær Hoared fellur af nockurs Manns Høfde, so hann verdur skollottur, hann er hreinn.

41. Falle þad honum framann af Hofdenu, og þad verdur glæroted, þa er hann hreinn.

42. Enn vaxe þar a þeim berskollotta, eda hvar hann er rotenn, eitt hvijtt, eda raudt Teikn, þa er þar Spitelska upprunnenn a þvi Hoarlausa, eda a þvi Skollotta Hofde.

43. Þar fyrer skal Presturenn skoda hann, og þa hann formerker, ad hvijtt, eda raudt Teikn er uppvagsed a þvi glærotna, eda skollotta Hofde, og þad er ad sioa so sem Lijkþroa a Skinnenu, þa er hann spitelskur og ohreinn,

44. Og Presturenn skal seigia hann ohreinann fyrer Saker þvilijks Merkis, sem er a hans Hofde.

45. Enn hvor sem þar er nu Lijkþroar, hans Klæde skulu vera sundurrifenn, og hans Hofud bert, enn Varernar huldar, og skal kallast med ollu Ohreinn.

46. Og so leinge sem þad Teikn er a honum, skal hann vera Ohreinn, hann skal bwa alleina, og hans Heimele skal vera fyrer utann Herbwdernar.

II. 47. Sie þar nockud Spitelskt Teikn a nockru Klæde, hvort helldur þad er vr Ullu, eda Lyne.

48. A uppestodunne, eda Fyrer-Vafenu, hvort

hvort helldur þad er af Lijne, eda af Ullu, eda a Skinne, eda a sierhvoriu þvi sem giort er af Skinne.

49. Og þa þad Teikn er bleikt eda raudt a Klædenu, eda Skinnenu, eda oa Uppestødunne, eda oa Fyrervafenu, eda a nockrum Hlut sem giordur er af Skinne, þad er vijst eitt spitelskt Teikn, þar fyrer skal Presturenn skoda þad.

50. Og þa hann sier Teikned, þa skal hann lykia þad jnne j Sio Daga.

51. Sioae hann þa oa hinum Siøunda Deige, ad Teikned hefur vijdara ered sig jnn a Klædenu, a Prœdenum, eda oa Fyrervafenu, oa Skinnenu, eda a nockru þvi sem giort er af Skinne, þa er þad eitt etande Spitelsku-Teikn, og er ohreint.

52. Og Mann skal brenna þad sama Klæde, eda Proadenn, eda Fyrervafed, hvort þad er helldur af Ullu eda af Lijne, eda hvada hellst Verknadur þad er vor skinne, oa hvoriu ad soddan Teikn er, þvi þad er Innæted Spitelsku Teikn, og skal uppbrennast j Ellde.

53. Enn sioae Presturenn ad Teikned hefur ecke ered sig vijdara jnn a Klædenu, eda a Prœdenum, eda a Fyrervafenu, eda a ollu þvi sem af Skinne er giort,

54. Pa skal hann skipa ad þvo þad, sem Teikned er a, og lykia þad jnne j adra Sio Daga.

55. Sioae Presturenn epter a, þa Teikned er þveiged, ad þad hefur eige ummbreitst, fyrer hans Augum, hefur og ecke vijdara jnnæted sig, þa er þad ohreint, og skal brennast j Ellde, þvi þad hefur diupt jnneted sig, og giort þad Kloadugt.

56. Enn nær Presturenn sier, ad Teikned er horfed, epter þad þad er þveiged, þa skal hann rijfa þad af Klædenu, af Skinnenu, af Prœdenum, eda Fyrervafenu,

57. Enn synest þad nockurstadar enn þa framar oa Klædenu, og Prœdenum, oa Fyrervafenu, edur oa allshoattudu Skinnverke, þa er þad Fleckur, og skal brennast j Ellde, þar soddan Teikn er oa.

58. Enn sie þad Teikn geinged af Klædenu, af Prœdenum, eda af Fyrervafenu, eda af ollu þvi sem giort er af Skinne, sijdan þad var þveiged, þa skal þad þvost aptur, og so er þad hreint.

59. Þetta er Logmoaled um Spitelskt Teikn, oa Klædunum, hvort helldur þau eru af Ullu, eda Lijne, a Prœdenum, a Fyrervafenu og a ollu þvi sem giort er af Skinne, til ad seigia þad hreint eda ohreint.

## XIV. Capitule.

Hreinsun þeirra Lijkþroau.

Og DROTTinn talade vid Mosen og sagde,

2. Þetta er Logmoaled yfer þeim Lijkþroaa, þa hann skal hreinsast. Hann * skal koma til Prestsins, * Matth. 8, 4. Marc. 1, 44. Luc. 5, 14. c. 17, 14.

3 Og Presturenn skal ganga vot af Herbvodunum, og skoda Hvornenn þad Spitelsku Teikn er læknad oa þeim Lijkþroaa.

4 Og hann skal bioda þeim sem hreinsast skal, ad taka Tvo Lifand: Fugla, sem hreiner eru, og Cedrus Trie, og Purpura Ull, og Ysop.

5. Og hann skal bioda ad slatra odrum Fuglenum, j einu Leirkiere, hioa einu rennande Vatne.

6. Og hann skal taka þann Lifanda Fugl, med Cedrus Trienu, Purpura Ullu, og Ysopo, og drepa þvi j Blood þess sæfda Fugls, hioa þvi rennanda Vatne,

7. Og stockva sioSinnum yfer þann sem hreinsast skal af Lijkþroanne, Og hreinsa hann so, og loata þann Lifanda Fugl flivoga lausann j burt a Morkenne.

8. Enn soa sem hreinsadur er, skal þvo sijn Klæde, og raka allt sitt Hoar af, og lauga sig j Vatni, so er hann hreinn. Sijdann gange hann j Herbvodernar, Po skal hann vera fyrer utann sijna Tialldbvod j sio Daga.

S 2 9. Og

9 Og þann siounda Dag skal hann raka allt sitt Haar af sijnu Hofde, Skiegge og Augnabraam, so ad allt hans Haar sie afrakad. Og hann skal þvo sijn Klæde, og lauga sinn Lijkama j Vatne, so er hann hreinn.

10. Og a þeim aattunda Deige skal hann taka Tvo Lomb aan Lyta, og veturgamlann Saud aan Lyta, og þria tijunda parta Hveitimiols til Matoffurs, Blandad med Oleo, og einn (a) Log af Oleo.

(a) (Log) Kallast Lijtill Mæler hiaa Ebreskum, vita Menn ey hvad stoor hann var.

11. Siidann skal Presturenn skicka þann sem hreinn er giordur, og þessa Hlute, framm fyrer DRottinn, utann fyrer Samkundu-Tialldbuudardyronum.

12. Og hann skal taka þad annad Lambid, og offra þvi til Skulldoffurs, med þeim Log af Vidsmiore, og skal veifa þvi fyrer DRottni,

13. Og slaatra sijdann Lambenu, þar sem vant er ad slaatra Synda-Offrenu, og Brennefoornenne, sem er, aa þeim Helgum Stad. Þviad lijka sem Syndaoffred heyrer Prestenum til, so er og lijka Skulld-Offred, Þvi þad er þad Allra-Helgasta.

14. Og Presturenn skal taka af Skulldoffursins Bloode, og strinka þvi aa þann hægra Eyrna snepel, aa þeim sem hreinn er ordenn, og aa hans hægra Pumal-fingur, og aa hans Hægre Pumaltaa.

15. Þar epter skal hann taka Vidsmiored, af sama Log, og laata þad j sijna (þad er Prestsins) Vinstre Hond.

16. Og drepa sijnum Fingre af sinne hægre Hende j Oleum, sem hann hefur j sinne Vinstre Hond, Og stockva med sijnum Fingre Sio sinnum af þvi Vidsmiore, fyrer DRottni.

17. Enn af þvi Vidsmiore sem hann hefur j sinne Hende epter, skal hann strijka a hans hægra Eyrnasnepel, sem er ordenn hreinn, og a hans hægra Pumal-fingur, og a hans hægre Pumaltaa, ofann a Skulldoffursins Blood.

18. Enn þad sem af geingur af þvi Vidsmiore j hans Hende, þad skal hann laata uppa hans Hofud sem hreinn er ordenn, og forlijka hann sem hreinn er ordenn fyrer DRottni.

19. Og hann skal giora Synda-Offred, og forlijka hann sem hreinn er ordenn af hans Ohreinleika.

20. Og sijdann skal hann slaatra Brennefoornenne, og skal offra henne aa Alltarid, med Matoffrenu, og forlijka hann, og so er hann hreinn.

21. Enn sie hann faatækur, og giete ecke votvegad so miked med sinne Hende, Þa skal hann taka eitt Lamb til eins Skulldoffurs, til veifunar, og forlijka hann med, og enn tijunda Part Hveite-miols, blandad med Vidsmiore, til Matoffurs, og einn Log Oleum.

22. Og tvær Turtildufur, eda tvær ungar Dufur, sem hann kann ad votvega med sinne Hende, ad ein sie til Syndaoffurs, enn onnur til Brennefoornar,

23. Þetta skal hann bera til Prestsins, fyrer DRottinn, utan fyrer Samkundu-Tialldbudardyrunum, þann aattunda Dag epter sem hann er ordenn hreinn.

24. Þa skal Presturenn taka Lambed til Skulldoffursins, og þann Log Oleum, og skal veifa þvi ollu fyrer DRottni.

25. Og skal slaatra Lambenu til Skulld-Offursins, og taka af sama Skulldoffursins Bloode, og smyria a hans hægra Eyrna snepil, sem er ordenn hreinn og a hans hægra Pumal-fingur, og a hans hægre Pumal-taa.

26. Og hann skal laata af Vidsmiore j sijna (þad er j Prestsins) vinstre Hond.

27. Og stockva med sijnum Hægre Handar Fingre af þvi Oleo, sem er j hans Vinstre Hende, Sio sinnum fyrer DRottni.

28. Enn hann skal stockva af þvi sem hann hefur epter j sinne Hende, aa hans hægre Eyrna snepil, sem hreinn er ordenn, og aa hans hægra Pumalfingur, og aa hans hægre Pumaltaa, ofan aa Skulldoffursins Blood.

29. Enn

29. Enn hvad sem þa epter er af Oleo j hans Hende, þad skal hann lꜳta uppa hans Hofud sem hreinn er ordenn, til ad forlijka hann fyrer DRottni.

30. Sijdann skal hann giora eitt Synda-Offur, af annare Turtildufunne, eda Dufu unganum, so sem hans Hond kunne ad utvega.

31. Og eitt Brenneoffur af þeim odrum med Matoffrenu, og Presturenn skal forlijka hann fyrer DRottni, sem hreinn er ordenn.

32. Þetta skal vera Logmꜳled um þann Lijkþrꜳa, sem ecke kann ad utvega med sinne Hende þad sem heyrer til hans Hreinsunar.

33. Og DRottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

34. Þa þier komed jnn j Canaans land, þad sem eg vil giefa ydur til eignar, Og eg sende Spitelskt Teikn j nockurt Hws, ut j ydar Eignar-Lande,

35. Þa skal sa koma sem Hwsed ꜳ, og undvijsa Prestenum, og seigia, Mier synest ad þar sie komed Spitelskt Teikn jnn j mitt Hws.

36. Sijdann skal Presturenn bioda, ad þeir rydie Hwsed, ꜳdur enn Presturenn kiemur þar jnn ad skoda Teikned, so þad verde ecke allt saman ohreint sem j Hwsenu er, Þvi nærst skal Presturenn fara þar jnn og skoda Hwsed.

37. Og þa hann skodar Teikned, og formerker, ad þar eru gular, eda raudar holur a Veggnum j Hwsenu, so ad þad er divpara til ad siꜳ enn Veggurenn er annars,

38. Þa skal hann ganga ut ad Dyrum Hwssins, og byrgia Hwsed aptur j sio Daga.

39 Og þa hann kiemur aptur ꜳ þeim siounda Deige, og sier, ad Teikned hefur vijdara jnneted sig a Veggiunum j Hwsenu,

40. Þa skal hann skipa ad briota þa Steina ut, sem Teikned er a, og kasta þeim ut ur Stadnum, j einn ohreinann stad.

41 Sijdann skulu Menn skafa Hwsed allt umkring jnnann til, og kasta þvi Kalke sem af er skafed ut vor Stadnum, j einn ohreinann stad,

42. Og taka adra Steina, og setia aptur j stadenn, og so kalka Hwsed aptur med odru Kalke.

43. Enn ef sama Teikn kiemur aptur, og utbrytst j Hwsenu, epter þad Mann hefur nidurbroted Steinana, og so Lijmkastad Hwsed ad nyu,

44. Þa skal Presturenn fara jnn. Og þa hann sier, ad þad Teikned hefur vijdara jnneted sig, þa er þad sannlega ein fortærande Spitelska j Hwsenu, og þad er ohreint.

45. Þar fyrer skal nidurbriota Hwsed, Steina og Trie, og allt þad Kalk sem er j Hwsenu, og bera þad ut vor stadnum, ꜳ einn ohreinann stad.

46. Og hvor sem geingur jnn j þad Hws, so leinge sem þad er tilluckt, sa same er ohreinn til Kvollds.

47. Enn hvor sem liggur, edur etur þar jnne, hann skal þvo sijn Klæde.

48. Enn ef Presturenn, þa hann geingur þar jnn, sier, ad Teikned hefur ecke etid sig ut vijdara j Hwsenu, epter þad sem Hwsed var Lijmkastad, Þa skal hann dæma þad hreint, þvi Teikned er læknad.

49. So skal hann taka til Syndaoffurs fyrer Hwsed Tvo Fugla, Cedrus Trie, og Purpura Ull, og Ysop,

50. Og skal sꜳtra odrum Fuglenum j einu Leirkiere, hiꜳ rennande Vatne,

51. Og skal taka Cedrus tried, Purpura ullena, og Ysopid, og þann Lifanda Fuglenn, og drepa þessu j Blod hins sæfda Fuglsins, og j Rennanda Vatn, og stockva yfer Hwsed Siosinnum.

52. Og so skal hann hreinsa Hwsed med Fuglsins Blode, og med rennande Vatne, med þeim Lifanda Fugle, med Cedrus Trienu, med Ysopo, og med þeirre Purpura Ullu,

53. So skal hann lꜳta þann lifanda Fugl ut af Stadnum fliuga friꜳlslega, hvort hann

hann vill j Mörkena, og forlijka Hwsed, og so er þad hreint.

54. Þetta eru Logenn um allshaattud Lijkþraar Teikn, og um Skurfu,

55. Og um Spitelsku aa Klædunum, og Hwsunum,

56. Og um Boolgur og Vos, og Hvijtroda Akomur,

57. So Menn meige vita, nær nockud er hreint edur ohreint, og þetta eru Logenn um Spitelskuna.

# XV. Capitule.

Hversu ad Karlmenn og Konur ættu ad Hreinsast nær þau hefdu nockurn Saurugleika af Rennslum.

Og DRottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

2. Seiged Israels Börnum, og taled so til þeirra. Nær þar rennur Bloodfall af nockurs Manns Hollde, hann er ohreinn.

3. Enn þa er hann ohreinn af þeirre Afrenas, nær hans Holld væger, eda svellur þar af.

4. Allt þad sem hann liggur aa, og allt þad hann situr aa, verdur ohreint,

5. Og hvör sem snerter hans Sæng, hann skal þvo sin Föt og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

6. Og hvör sem setur sig nidur aa nockud þad sem hann hefur aadur aa-seted, hann skal þvo sijn Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

7. Hvör sem snerter hans Holld, hann skal þvo sijn Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

8. Ef hann spyter uppa nockurn þann sem er hreinn, þa skal saa þvo sijn Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

9. Og saa Sodull sem hann rijdur j verdur ohreinn.

10. Og hvör sem snerter nockud af þvi sem hann hefur haft under sier, sa er ohreinn til Kvollds, og hvör sem ber nockud soddann, hann skal þvo sijn Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

11. Og hvorn hann snerter aadur enn hann þvær sier, hann skal þvo sijn Klæde, og lauga sig j vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

12. Nær hann kiemur vid nockud Leirkier, þa skal þad briotast j sundur, Enn Triekier skulu menn þvo j vatne.

13. Enn þa hann verdur hreinn af sinne Bloodraas, Þa skal hann telia sio Daga fraa þvi hann er ordenn hreinn, og þvo sijn Klæde, og lauga sitt Holld j Rennanda Vatne, so er hann hreinn.

14. Og aa þeim aattunda Deige skal hann taka tvær Turtildwfur, eda tvær ungar Dwfur, og bera þær framm fyrer DRottinn, fyrer Samkundu-Tialldbwdar-dyrnar, og giefa þær Prestenum.

15. Og Presturenn skal giora eitt Synda-Offur af annare þeirra, enn Brenne-offur af annare, og forlijka hann fyrer DRottne, vegna hans Blodraasar.

16. Ef nockurs Manns Sæde flytur fra honum j Svefne, hann skal bada allann sinn Lijkama j vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

17. Og oll þau Klæde, og allt þad Skinn sem med þvijliku Sæde er saurgad, skal hann þvo j Vatne, og þad skal vera ohreint til Kvollds.

18. Ein Kvinna, hiaa hvörre þvijlijkur Madur liggur, þau skulu bada sig j Vatne, og vera ohrein til Kvollds.

19. Nær ein Kvinna hefur Bloodlaat aa sijnum Lijkama, hun skal vera fyrer sig sialfa j sio Daga,

20. Hvör hana snerter, hann er ohreinn til Kvollds.

21. Og allt þad hun liggur aa, so leinge hun hefur sinn Tijma, þad er ohreint, og þad sem hun situr a verdur ohreint.

22. Og hvör sem snerter hennar Sæng, hann skal þvo sijn Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

23. Og hvör sem snerter nockud af þvi sem hun hefur setid aa, hann skal þvo sijn Klæde,

Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

24. Og þegar nockur samrecker henne, og hun fær sinn Tijma hiaa honum, þa verdur hann ohreinn j siø Daga, og su Sæng sem hann loa uppa, skal vera ohrein.

25. Þegar nockur Kvinna hefur leinge sitt Bloodloat, ecke alleinasta epter venjulegum tijma, helldur og so yfer vanalegann tijma, þa skal hun vera ohrein, so leinge sem hun hefur soddann Blodroas, lijka sem hun er þa hun er fyrer sig sialfa, so skal hun og hier vera ohrein.

26. Hvør su Sæng sem hun liggur uppa, alla þa stund sem hun hefur þad Bloodloat, skal vera lijka sem su Sæng, þa hun er fyrer sig sialfa, og allt þad hun situr oa, verdur ohreint, lijka sem soa ohreinleike er, nær hun er fyrer sig sialfa.

27. Hvør sem snerter nockud þar af, hann verdur ohreinn, og skal þvo sijn Klæde, og lauga sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds

28. Enn verde hun heil af sijnu Blodfalle, þa skal hun telia siø Daga, sijdan skal hun vera hrein.

29. Og oa þeim oattunda Deige skal hun taka tvær Turtildvofur, eda tvær ungar Dvofur, og bera til Prestsins, fyrer Samkundu-Tialldbvodardyrnar.

30. Og Presturenn skal giora eitt Synda-Offur af annare þeirra, enn eitt Brenne-Offur af annare, og skal forlijka hana fyrer DRottni, vegna hennar ohreininda roasar.

31. So skulud þier vidvara Jsraels Børn, vid þeirra Ohreinleika, ad þau deye ecke j sijnum Saurendum, nær þau saurga mijna Tialldbvod, sem er oa medal ydar.

32. Þetta er Logmoaled um þann sem hefur nockra afroas af sijnum Lijkama, og um þann sem Saaded fellur fra j Svefne, so hann verdur ohreinn þar af, og um hana sem hefur sitt Bloodfall,

33. Og hvør sem hefur Bloodloat, hvort þad er helldur Karlmadur, eda Kvinna, og þa nockur samrecker þeirre sem ad er ohrein.

# XVI. Capitule.

Um þann oarlega Stora Sabbath, er oatte ad Halldast med þeijngun Saalarennar, og fyrer utan Þrælkonis Verk.

Og DRottinn talade vid Mosen (epter þad þeir tveir Arons Syner voru dauder, þa þeir hofdu offrad fyrer DRottni).

2. Og sagde, Seigdu Aaron þijnum Brodur, ad hann gange ecke jafnlega jnn j þann Jnnsta Helgedom, fyrer jnnann Fortiallded, fyrer Noadarstolenn, sem er a Orkenne, so hann ecke deye, Þvi Eg vil birtast j einu Skije yfer Noadarstolnum.

3. Enn med þessu skal hann ganga þar jnn, Med einn ungann Uxa til Syndaoffurs, og med einn Hrvot til Brennefoornar.

4. Og skal færa sig j þann helga Lijnkyrtel, og hafa eitt nidurklæde af Lijne um sinn Lijkama, og gyrda sig med einu Lijnbellte, og hafa eitt Hofudklæde af Lijne, Þvi þad eru þau Helgu Klæde, og skal lauga sinn Lijkama j Vatne, og færa sig so j þau

5. Og so skal hann taka af Almuga Jsraels Barna tvo Kiarnhafra til Syndaoffurs, og eirn Hrvot til Brenneoffurs.

6. Og Aaron skal leida Uxann framm, til sijns Syndaoffurs, og giora eina Forlijkan fyrer sig og fyrer sitt Hvus.

7. Sijdan skal hann taka þa tvo Hafra, og leida þa framm fyrer DRottinn, fyrer Samkundu-Tialldbudardyrnar.

8. Og skal legaia Hlute a þa tvo Hafra, einn Hlut fyrer DRottinn, og þann annann fyrer þann Hafur sem laus skal loatast.

9. Og hann skal Fornfæra þann Hafur, sem DRottins Hlutur fiell yfer, til Synda-Offurs.

10. Enn sa Hafurenn sem Hluturenn fiell yfer, ad hann skyllde laus loatast, þann skal hann skicka lifande fyrer DRottinn, ad hann giore Forlijkan fyrer hann, og sleppa so þeim lausa Hafre ut a Eydemork.

11. Og so skal hann sijdann leida þann Uxa

Uxa framm, til sijns Syndaoffurs, og forlijka sig og sitt Hwß, og sæfa hann.

12. So skal hann taka eina Ponnu, fulla af Glædum, af Alltarenu þvi sem stendur fyrer DRottni, og einn Hremming fullann af moldu Reykelse, og bera þad jnn yfer Fortialldeð.

13. Og kasta so Reykelsenu a Elldenn, fyrer DRottni, so ad Reykurenn af Reykelsenu hylie Nadarstolenn, sem er uppa Vitnisburdenum, ad hann ecke deye.

14. So skal hann taka Blooded af Uxanum, og stockva þvi med sijnum Fingre framanverdt a moote Nadarstoolnum, sio-sinnum skal hann so stockva med sijnum Fingre af Bloodenu fyrer Nadarstoolnum.

15 Sijdan skal hann slaatra Hafrenum, sem er Folksins Synda-foorn, og bera hans Blood jnn yfer Fortialldeð, og skal giora med hans Blood, lijka sem hann giorde vid Uxans Blood, og dreifa þar med framanverdt a moot Nadarstolnum.

16. Og so forlijka Helgedomenn, af Jsraels barna (a) Ohreinleika, og af þeirra yfertrodslu j ollum þeirra Syndum, So skal hann og giora vid Samkundu-Tialldbudena, sem ligg-ur medal þeirra, midt a medal þeirra Ohreinleika.

(a) Ohreinleika) þad er, allur Jsrael er ohreinn, og j Syndum, þo byr samt Gud midt a millum þeirra syndugu, og giorer þa heilaga, þad er, þeir niota hans Helgedoms, og kallast Heilager hans vegna, Annars er þad allt saman Ohreint og Synd, j þeirra Efnum, So er Christur, þia sijnu folke, etc.

17. Þar skal *Eingenn Madur vera j Samkundu-Tialldbudenne, a medann hann geingur þar jnn, ad giora Forlijkun j Helgedomenum, þar til hann kiemur ut aptur, Og so skal hann giora eina Forlijkun fyrer sig, og sitt Hwß, og fyrer allann Almwgann j Jsrael. *Luc. 1, 10. Ebr. 9, 7.

18. Og nær hann geingur ut til Alltaresins sem stendur fyrer DRottni, þa skal hann giora eina Forlijkun þar fyrer, Og skal taka Uxans Blood og Hafursins Blood, og rijda þvi a Alltaresins Horn umhverfis.

19. Og skal stockva Bloodenu sio-sinnum med sijnum Fingre þar a, og hreinsa þad og helga þad af Jsraels Barna ohreinleika.

20. Og sem hann hefur fullkomnad Helgedomsins Forlijkun, og Samkundu-Tialldbwdarennar og Alltaresins, þa skal hann frammleida þann Lifanda Hafurenn.

21. Þa skal Aaron leggia sijnar badar Hendur yfer hans Hofud, og medkienna allar Jsraels Barna Synder yfer honum, og allar þeirra yfertrodslur, j ollum þeirra Syndum, og skal leggia þær uppa Hafursins Hofud, og senda burt j Audn med einum Manne, sem þar er fyrer Hende,

22. Ad Hafurenn bere so alla þeirra Misgiorninga a sier, j eina Ville Audn, og laata hann þar epter j Eydemorkenne.

23. So skal Aaron ganga jnn j Samkundu-Tialldbwdena, og færa sig af Lijnklædunum sem hann for j, þa hann gieck jnn j Helgedomenn, og laata þau þar epter.

24. Og hann skal lauga Lijkama sinn j Vatne, j þeim helga stad, og færa sig j sijn eigenn Klæde, og ganga so ut, og giora so bæde sitt eiged Brenneoffur og Folksins Brenneoffur, og giora forlijkun bæde fyrer sig og fyrer Folked,

25. Og skal upptendra þad Feita af Syndafoornenne a Alltarenu.

26. Enn sa sem færde þann lausa Hafur j burt, skal þvo sijn Klæde, og þvo sinn Lijkama j Vatne, og ganga sijdann j Herbwdernar.

27. Enn Syndafoornar-Uxann, og Hafurenn til Syndaoffurs, hvors Blod jnn er bored j Helgedomeñ til Forlijkunar, skulu Menn bera ut fyrer Herbwdernar, og brenna med Ellde þeirra Hwd, Holld og Myke.

28. Og sa sem þa brenner, skal þvo sijn Klæde, og lauga sinn Lijkama j Vatne, og koma þar epter j Herbwdernar.

29. Og þetta skal vera ydur ein eylijf skickan, Þier skulud þia ydra Lijkame, þann Tijunda Dag j þeim Siounda Manade, og eckert

eckert Arfide fremia, hvorke Innbyggiarar nie Framande a medal ydar.

30. Fyrer þvi, ad ydar Forlijkun skier a þeim Deige, ad þier skulud vera hreiner giørder, af ollum ydar Syndum erud þier hreinsader fyrer DRottni.

31. Þar fyrer skal þad vera ydar hid stærsta Sabbath, og þier skulud þioa ydar Lijkame, Og þetta skal vera ydur ein Eylijf Skickan.

32. Enn þessa Forlijkun skal einn Prestur giøra, soa sem vijgdur hefur vered, og hvors Hond ad Mann hefur uppfyllt, til Prests-Embættis j hans Fodurs stad. Og hann skal færa sig j þau Lijnklæde, sem eru þau heilogu Klæde,

33. Og forlijka so þann Heilaga Helgedom, og Samkundu-Tialldbwdena, og Alltared og Prestana, og allt Folked Safnadarins.

34 Þad skal vera ydur ein Eylijf Skickan, ad þier forlijked Israels Born, af ollum þeirra Syndum, einu sinne um aared, Og Moses giørde sem DRottinn hafde bifalad honum.

## XVII. Capitule.

Log (I) um þann Stad i hverium oll Offur ættu ad ske; (II) ad ecke mætte Eta Blod.

I. Og DROTTinn talade vid Mosen og sagde,

2. Tala þu til Arons og hans Sona, og allra Israels Barna, og seig þu til þeirra, Þetta er þad sem DRottinn hefur boded,

3. Hvor af Israels Hwse sem slaatrar einum Uxa, eda Lamb, eda Geit-Sand, i Herbwdunum, eda fyrer utan Herbwdernar,

4. Og ber þad ecke framm fyrer Samkundu-Tialldbwdardyrnar, ad þad sie bored DRottni til Offurs, fyrer Tialldbwd DRottins, Hann skal vera (a) Bloods sekur, so sem soa ad ut hefur hellt Bloode, Og sodann Manneskia skal afmoad verda fra sijnu Folke.

(a (Sekur) Hier sier þu, ad Gud vill ecke ha Þionustu sem einn hann utvelur sialfur, og dicktar, enn þeirrar Þionustugiørdar sem Gud bydur, þvi kallar hann slijkann Fornfærara einn mordingia, so sem og Esaias talar j Sextugasta og siotta Cap.

5. Þar fyrer skulu Israels Born færa sijnar Forner, þær sem þau vilia færa, ute a vijdum Vollum, framm fyrer DRottinn, utan fyrer Samkundu-Bwdardyrnar, til (b) Prestsins, og þar skulu þeir offra DRottni Packoffur.

(b) (Til Prestsins) Ecke þeir sialfer, epter sijnum eigenn Giedþotta og Meining.

6. Og Presturenn skal stockva Bloodenu a Alltare DRottins, fyrer utan Samkundu Tialldbwdarennar Dyr, og upptendra þad Feita, DRottni til sæts Ilms.

7. Og þeir skulu j ongvann maata hiedan af færa Dioflenum þeirra Foorner, med hvorium þeir fremia sijnar Hooraner. Þetta skal vera þeim ein eylijf skickan, hia þeirra epterkomendum.

8. Þar fyrer skalltu seigia til þeirra, Hvor Madur af Israels Hwse, eda Utlendingur a medal ydar, sem færer Foorn, eda Brenne-Offur,

9. Og ber þad ecke framm fyrer Samkundu-Tialldbwdarennar Dyr, til ad giøra þad DRottni, hann skal upprætast fra sijnu Folke.

II. 10. Og hvor Madur sem nockud Blood etur, hvort helldur hann er af Israels Hwse, eda einn Framande a medal ydar, j giegn honum vil eg setia mitt Andlit, og rickia honum fra sijnu Folke.

11. Þviad Lijfed Lijkamans er j Bloodenu, og eg hefe giefed ydur þad til Alltarisins, ad ydar Saaler skulu þar med forlijkast, Þviad Blooded er Forlijkunenn fyrer Lijfed.

12. Þar fyrer hefe eg sagt til Israels Barna, Eingenn Saal skal eta Blood a medal ydar, og eige helldur nockur Framande Madur, sem byr a medal ydar.

13. Og hvor soa Madur sem veider eitt Dyr, eda einn Fugl, sem Mann ma eta, hvort helldur hann er af Israels Hwse, eda Framande a medal ydar, þa skal hann uthella Bloodenu

denu af þvi, og hylia þad med Jordu. Þvi Lijf Lijkamans er j Bloodenu, so leinge sem hann lifer, Og eg hefe sagt til Jsraels Barna,

14. Þier skulud ecke eta Blooded af þvi sem hefur Lijf, þviad Lijfed Lijkamans er j sijnu Bloode, Hvor þad etur, hann skal uppræckiast.

15. Og hvor Saal sem etur nockud Hræ, eda þad sem slited er af Dyrum, hvort hann er helldur Innbyggiare eda Framande, hann skal þvo sijn Klæde, og bada sig j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds, þa verdur hann hreinn.

16. Þvoe hann ecke sijn Klæde, og badar sig ecke, þa skal hann vera sakadur j sijnum Misgiorninge.

## XVIII. Capitule.

Um Blod-Skylldugleika er bannar Hiona-Band Innbyrdes.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þu vid Jsraelis Born, og seig þu til þeirra, Eg er DRottinn ydar Gud.

3. Þier skulud eckert giora epter Egyptalands Giorningum, þar sem þier bioggud, Ecke helldur epter Canaans Lands Giorningum, þar sem eg vil innleida ydur. Þier skulud og ecke hallda ydur epter þeirra Setningum,

4. Helldur skulud þier hallda ydur epter mijnum Riette, og mijna Setninga skulud þier hallda, ad þier ganged j þeim, Þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

5. Þar fyrer skulud þier og hallda mijna Skickan, og minn Riett, Þvi hvor*hellst Manneskia sem þad giorer, skal lifa þar af, þviad eg er DRottinn. * Rom. 10, 5. Gal. 3, 12.

6. Eingenn Madur skal liggia med sinne nääunustu Ættkonu, ad opeñbera hennar Blygdun, Þvi eg er DRottinn.

7. Þu skalt ecke opennbera þijns Fodurs, eda þinnar Modur Blygdun. Hun er þijn Mooder, þar fyrer skalltu ecke opennbera hennar Blygdan.

8. Þu skallt ecke opennbera Blygdun þinnar Fodurs Kvinnu, þvi þad er Blygdan þijns Fodurs.

9. Þu skallt ecke opennbera Blygdan þinnar Systur, sem er þijns Fodurs, eda þinnar Modur Dottur, hvort helldur hun er fædd heima, eda annarstadar.

10. Þu skallt ecke opennbera Blygdan þinnar Sonardottur, eda þinnar Dotturdottur, þvi þad er þijn Blygdan.

11. Þu skallt ecke opennbera Blygdun þinnar Stiupmodur Dottur, sem er fædd af þijnum Fodur, og er þijn Syster.

12. Þu skallt ecke opennbera Blygdun þinnar Fodur Systur, þvi hun er nääunust þijnum Fodur.

13. Þu skallt ecke opennbera þinnar Modur systur Blygdan, þvi hun er skylldust þinne Modur.

14 Þu skallt ecke opennbera Blygdun þijns Fodurbrodurs, ad þu snerter hans Kvinnu, þvi hun er þijn Sifkona.

15. Þu skallt ecke opennbera Blygdan þinnar Sonarkonu, þvi huñ er þijns Sonar Kvinna, þar fyrer skalltu ecke opennbera hennar Blygdan.

16. Þu skallt ecke opennbera Blygdan þinnar Brodurs Kvinnu, þvi hun er þijns Brodurs Blygdan,

17. Þu skallt ecke opennbera þinnar Kvinnu, og hennar Dottur Blygdan, ecke helldur taka hennar Sonardottur, eda Dottur Dottur, ad opennbera hennar Blygdan, þvi þad er hennar nærsta Ætt, og er Skammarligt.

18. Þu skallt ecke taka þinnar Kvinnu Syster med henne, og opennbera hennar blygdan henne j moote, þa stund sem hun enn lifer.

19. Þu skallt ecke ganga til nockrar Kvinnu, nær hun hefur sinn Siukdom, ad opennbera hennar Blygdan, j hennar ohreinleika.

20. Þu skallt ecke liggia hiä Kvinnu þijns Näunga, ad hafa samræde med henne, hvar med þu saurgast af henne.

21. Þu skallt ecke giefa af þijnu Sæde, til

til ad brenna þad fyrer Molech, so þu vanhelger ecke þijns Guds Nafn, Þvi eg er DRottinn.

22. Þu skallt ecke liggia hiꝏ einum Karlmanne sem hiꝏ einne Kvinnu, þvi þad er sviivirdelegt.

23. Þu skallt og ecke samlagast nockru Kvikende, so ad þu saurgest af þvi, og einginn Kvinna skal samlaga sig nockru Dyre, þvi þad er ein Sviivirding.

24. Þier skulud ecke saurga ydur af nockru þessu, þviad Heidingiarner hafa saurgad sig med þessu ꝍllu saman, hvoria Eg vil j burt reka fyrer ydur,

25. Og Landed er saurgad þar af, Og Eg vil vitia þeirra Synda yfer þa, so ad Landed skal utskirpa siinum Innbyggiurum.

26. Hallded þar fyrer min Setning og mina Dooma, og giored ecke neitt af þessum Sviivirdingum, hvort hann er helldur Innbyggiare eda Framande hiꝏ ydur.

27. Þvi þetta Lands Folk, sem var fyrer ydur, giorde soddan Sviivirdingar, og hafa þar med saurgad Landed,

28. So ad Landed ecke utskirpe ydur, ef þier saurged þad, lijka sem þad utskirpte Heidingium, sem þar voru fyrer ydur.

29. Þviad hvorier sem giora nockud af þessum Sviivirdingum, þeirra Saaler skulu eydeleggiast frꝏ þeirra Folke.

30. Hallded þar fyrer miinar Skickaner, og giored ecke nockud af þessum andstyggelegum Hlutum, so sem þeir ed þar voru fyrer ydur, ad þier saurged ydur ecke þar med, þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

## XIX. Capitule.

Utskijring yfer þau Tiju Guds Bodord, og so ꝍnnur Lꝍg.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þu vid allann Almugann af Israels Bornum, og seig til þeirra, Þier * skulud vera Heilager, þvi Eg er Heilagur, DROTTinn ydar Gud.

* 1 Pet. 1, 16.

3. Hvor skal oottast sinn Fodur og siina Modur. Hallded miina Helge-Daga, þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

4. Þier skulud ecke snua ydur til Afguda, og eige skulud þier giora ydur steypta Afgude, þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

5. Og nær þier vilied færa DRottni Packlætis-foorner, þa skulud þier offra þvi sem honum mꝏ (a) þocknast,

(a) (Kann ad þocknast) þad er, Giored þad epter hans skipan ecke epter þotta ydar, eda so sem ydur lijkar epter eigenn Meiningu. Þvi hann vill ecke hafa neinar Skickaner sem Madur hefur sialtur uppa þeinkt, edur utvaled. Þar fyrer skal til, ad þier offred so, ad honum gediest, og hann ecke meir reidest af ydar eigenn Setningum.

6. Enn þier skulud eta þad, þann sama Dag, sem þier offred, og næsta Dag þar epter, enn hvad sem leifest til hins þridia Dags, þad skal brennast med Ellde.

7. Enn ef nockur etur af þvi a þeim þridia Deige, þa er hann ein Sviivirding, og er ecke þacknæmur.

8. Og sa sem þad etur, hann skal bera sinn Misgiorning, þvi hann saurgade Herrans Helgedom, og soddann Saaler skulu upprætast, fra siinu Folke.

9. Nær þu uppskier Korned af þijnum Akre, þa skalltu ecke allt saman uppskiera, af endum þijns Akurs, og ei ofnaumlega safna ꝍllu saman þiinu Korne.

10. So og skalltu eige helldur grandvarlega saman lesa þijn Viinber, af þijnum Viingarde, og eige skalltu safna upp þeim Viinberium sem nidur eru fallenn, helldur skalltu unna þess Fꝍtækum, og Framande Monnum, þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

11. Þier skulud ecke stela, og ecke helldur liuga, og eige helldur falskelega hondla einn vid annann.

12. * Þier skulud ecke falsklega sveria vid niitt

mitt Nafn, og vanhelga ydar Guds Nafn, þvi Eg er DRottinn. *Matth.5,33.

13 Þu skallt ecke giora oriett þijnum Naunga, eige helldur ræna hann, Laattu ecke Daglauna-Mannsins Verkkaup vera hia þier allt til Morguns.

14. Þu skallt ecke bølva þeim Dauſa. Þu skallt ecke leggia neitt j Veigenn fyrer þann hinn Blinda, so hann meige detta um, Þviad þu skallt oottast fyrer þijnum Gude, þvi Eg er DRottinn.

15. Þier skulud ecke høndla oriettelega j Domum, og* þu skallt ecke alijta þann Lijtelmagna, og eige helldur heidra þann Vollduga, Helldur skalltu riettelega dæma yfer þijnum Naunga. *Jacob.2,2.3.4.

16. Vertu eingenn Baktalare a medal þijns Folks. Þu skallt eige helldur stunda epter þijns Naunga Blode, þvi Eg er DRottinn.

17. Þu skallt ecke hata* þinn Broder, j þijnu Hiarta, Helldur skalltu straffa þinn Naunga, so þu berer ei Skulld hans vegna: *Matth 5,22. Luc. 17,3 1 Joh.3,15.

18. Vert þu ecke hefndargiarn, og eige helldur langrækenn vid Børn þijns Folks. *Þu skallt og elska þinn Naunga so sem sialfann þig, Þvi Eg er DRottinn.
*Matth. 22,39. Marc. 12,31. Rom. 13,9. Gal 5,14. Jac. 2.8.

19. Þier skulud hallda mijna Setninga, ad þu laater ecke þinn Fienad samblanda sig vid nockur annars slags Kvikende. Og ecke saa þinn Akur med blondudu Korne. Og ber ei þau Klæde a þier, sem ofenn eru bæde af Ullu og Lijne.

20. Ef nockur Madur liggur hia eirnre Kvinnu, og samrædest henne sem er ein Ambaatt, og er kreinkt af Manne, þo eige giefenn frij, eda frials laatenn, þad skal vera straffad, enn þo skulu þau ecke deya, þvi hun var ecke frij.

21. Enn hann skal bera framm fyrer DRottinn, fyrer sijna Synd, eirn Hrwt til Skulldaoffurs fyrer Samkundu Tialldbudardyrnar.

22. Og Presturenn skal giora eina Forlijkun fyrer DRottni, med þeim sama Skulldaoffurs Hrute, fyrer þa Synd sem hann hefur giort, So mun Gud vera honum naadugur, yfer hans Syndum, sem hann hefur giort.

23. Nær þier komed inn j Landed, og þier planted allra handa Trie, sem Menn eta af, þa skulud þier umskiera þeirra a)Yferhwod, og þeirra Avaxta. J þriu aar skulud þier hallda þau fyrer oumskorenn, ad þier eted ecke af þeim.

(a) Yferhudena umskiera, er hier svo miked, sem þriu Aar ad bijda, so sem hann sialfur utleggur, seigiande, þriu Aar skulud þier hallda þaug oumskorenn etc. etc.

24. Enn a fiorda aarenu skal allur þeirra Avoxtur vera DRottni helgadur og loflegur.

25. Enn a þvi fimmta aare skulud þier eta af Avextenum, og safna honum til samans, þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

26. Þier skulud eckert med Bloode eta. Þier skulud ongvann gaum giefa ad Fugla Kvake, eige helldur utvelia Dagana.

27. Þier skulud ecke kringumskiera ydart Hofud-Haar, og ecke med øllu afraka ydart Skiegg.

28. Þier skulud ecke skiera nockud Teikn fyrer Skulld þess Dauda a ydar Lijkama, edur skiera nockra Bokstafe a ydur, þvi Eg er DROTTinn.

29. Þu skallt ecke hallda þinne Dottur til Saurlijfnadar, so ad Landed fremie ecke Hooraner, og verde Glæpafullt.

30. Halldeð mijna Hvijldardaga, og hrædest fyrer mijnum Helgedome, þvi Eg er DRottinn.

31. Snued ydur ecke til Spaasagnar Manna, og þier skulud einskis spyria af þeim sem fara med Teikna Þydingar, so ad þier saurgest ecke af þeim, þvi Eg er DROTTinn ydar GUd.

32. Þu skallt standa upp fyrer þeim Grááhærda, og heidra hinn Gamla, þvi þu skallt ottast fyrer þijnum GUde, þvi Eg er Drottinn.

33. Ef ad einhvor Utlendskur byr hiaa þier j ydar Lande, þa skulud þier ecke Fiesletta hann.

34. Hann skal bwa hiaa ydur sem annar Innlendskur, og þu skallt elska hann sem sialfann þig, þvi þier hafed og vered Utlender j Egyptalande, Eg er DROTTinn ydar GUd.

35. Þier skulud ecke ojafnadarlega hondla j Domum, med Alenn, med Vigt, og med Mæler,

36. Riettar Voger, riett Pund, og riett Mælekierolld, og riettar Konnur skulu vera hiaa ydur, þviad Eg er DROTTJNN ydar GUd sem leidde ydur af Egyptalande,

37. Ad þier hallded og giored alla mijna Setninga, og allann minn Riett, þvi Eg er DROTTinn.

## XX. Capitule.

Straff lagt vid Jmsar Synder.

Og DROTTJNN talade vid Mosen, og sagde.

2. Seig þu Jsraels Bornum, Hvor a medal ydar, Jsraelis Barna, eda einn Framande, sem byr j bland Jsrael, og giefur Molech af sijnu a. Sæde, hann skal vissulega deya, Folked j Landenu skal gryta hann ihel.

(a. (Sæde) þad er, sijn Born.

3. Og Eg vil setia mitt Auglit jmoot soddann Manne, og uppræta hann fra sijnu Foolke, þar fyrer, ad hann gaf (b) Molech af synu Sæde, og giorde ohreinann minn Helgedom, og vanhelgade mitt Heilagt Nafn.

(b) Molech var eitt Skurgod, hveriu þeir forn færdu sijn eigenn Born, og brenndu þau, so sem giorde Manasses Kongur Juda, og meintu þeir sig hier med ad giora GUde Þienustu, Alijka sem Abraham, þa hann fornfærde Jsaac Son sinn GUde, enn med þvi ad GUd hafde ecke bodid þeim þad so sem Abraham, þa var þad oriett; þar fyrer seiger GUd hier, ad hans Nafn saurgist þar med, þvi þetta var giort under GUds Nafns Yfervarpi, enn var þo Diofuls Þionusta. So sem Klausturheit, og adrer fleyre Manna setningar þvilijka Allmaraa, med þvi Skine, so sem onnur sierleg Guds Þionustugiord.

4. Enn ef Folked j Landenu sier j giegnum Fingurnar, med soddann Manne, sem Molech giefur af sijnu Sæde, og vill ecke slaa hann ihel,

5. Þa vil Eg þo setia mitt Auglit jmoote þeim sama Manne, og j giegn hans Ætt, og Eg vil uppræta hann fraa hans Folke, og so þa alla sem framed hafa Hoordom epter honum, med Molech.

6. Nær ein Saal snyr sier til Spaasagnara, eda þeirra sem Teikn utleggia, og hun hoorast epter þeim, þa vil eg setia mitt Auglit igiegn þeirre somu Saal, og afmaa hana fra sijnu Folke.

7. Þar fyrer giored ydur heilaga, og vered heilager, þviad Eg er DROTTinn ydar GUd,

8. Og hallded mijna Setninga, og giored þa, þvi Eg er DROTTJNN sem ydur giorer heilaga.

9. * Hvor sem bolvar sijnum Fodur, eda sinne Modur, hann skal Dauda deya, hans Blood sie yfer honum, þvi hann bolvade sijnum Fodur, edur Moodur.

* Matth. 15, 4. Marc 7, 10.

10. * Hvor sem hoorast med nockurs Manns Kvinnu, hann skal dauda deya, bæde Hoorkarlenn og so Hoorkonann, þar fyrer ad hann drijgde Hoor med sijns Naunga Kvinnu. * Joh. 8, 4. 5.

11. Ef nockur liggur med Eigennkonu sijns Fodurs, so ad hann hefur openberad sijns Fodurs Blygdan, þa skulu þau bæde Dauda deya, þeirra Blod sie yfer þeim.

12. Ef nockur liggur med sinne Sonarkvinnu, þa skulu þau bæde deya, þvi þau hafa framed eina Skomm, þeirra Blood sie yfer þeim.

13. Ef nockur liggur hiaa einum Karlmanne, so sem hiaa einnre Konu, þeir hafa giört eina svyvirdelega Skomm, og skulu baader Dauda deya, þeirra Blood sie yfer þeim.

14. Ef nockur tekur eina Kvinnu, og so lijka hennar Mooder, hann hefur framed eina Skomm, og hann skal brennast j Ellde, og þau bæde, so þar verde ei Glæpur a medal ydar.

15. Ef einhvor samblandast Fienade, þa skal hann vissulega deya, og Gripurenn skal deydast.

16. Ef Kvinna samlagar sig nockru Kvikende, so ad hun hefur samræde med þvi, hana skalltu deyda, og so kvikended med, þau skulu Dauda deya, og þeirra Blood sie yfer þeim.

17. Ef nockur tekur sijna Syster sijns Fodurs Dotter, eda sinnar Modur Dotter, og sier hennar Blygdan, og so hun aptur a mote hans Blygdan, þad er ein Bloodskomm, þau skulu upprætast fyrer Folksins Augsyn, þvi hann openberade sinnar Systur Blygdun, hann skal bera sinn Misgiorning.

18. Ef nockur Madur liggur hiaa einnre Kvinnu, þa hun hefur sinn kvennlegann Kranckleika, og openberar hennar Blygdan, og opnar hennar Brunn, og hun openberar sinn Bloods Brunn, þau skulu bæde upprætast fra sijnu Folke.

19. Þu skallt ecke openbera Blygdan þinnar Modur Systur, eda þinnar Fodur Systur, þvi slijkur Madur hefur openberad sijna naanustu Frændkonu, og þau skulu bera sinn Misgiorning.

20. Ef nockur legst med sijns Fodurs Broodurs Eiginnkonu, hann hefur openberad Blygdan sijns Fodurs Brodurs, þau skulu bera sijna Synd, og deya Barnlaus.

21. Ef nockur tekur sijns Broodurs Kvinnu, þad er eitt Skiemdar Verk, þau skulu vera aan Barna, þvi hann openberade sijns Brodurs Blygdan.

22. So halldeð nu alla mijna Setninga, og minn Riett, og gioreð þar epter, uppa þad, ad Landed skule ecke utskirpa ydur, j hvort eg vil innleida ydur, so ad þier bwed þar inne.

23 Og gangeð ecke j Setningum Heidingianna, hvoria eg vil utreka fyrer ydur, þviad allt soddann hafa þeir giort, og mier er Audstyggd a þeim.

24. Enn eg seige ydur, þier skulud eignast þeirra Land, þvi Eg vil giefa ydur eitt Land til Erfdar, j hvoriu ad flytur Miolk og Hunang. Eg er DROTTINN ydar Gud, sem ad ydur hefur skiled fra odrum Þiodum,

25. So þier skulud og skilia þad hreina Kvikinde fra þvi Ohreina, og Ohreina Fugla, fra þeim hreinu, og þier saurgeð ecke ydar Saaler a Kvikindum, a Fuglum, og a þvi nockru sem skrijdur a Jordunne, hvort ad eg hefe fraaskiled fyrer ydur, ad þad skule vera ohreint.

26. Þar fyrer skulud þier vera mier heilager, þvi Eg DROTTinn er Heilagur, sem ydur hefur adskiled fra Þiodunum, ad þier skulud vera mijner.

27. Pa nockur Madur eda Kvinna fremur Spaasaguer, eda Teikna Utleggingar, þau skulu Dauda deya, og skulu grytast j hel, þeirra Blood sie yfer þeim.

## XXI. Capitule.

Hvernig einn Prestur aatte ad haga sier i Einu og Odru.

Og DRottinn talade vid Mosen, Tala þu til Prestanna Aarons Sona, og seig þu til þeirra, Eingenn Prestur skal giora sig ohreinann a nockrum Frammlidnum af sijnu Folke,

2. Utann a sijnum Skylldum, sem honum naanastur er, sem ad er, Hans Moder, hans Fader, hans Son, hans Dotter, hans Broder,

3. Og hans Syster, sem enn er Jungfru,

og

og er nu enn hia honum, og hefur ecke aatt Mann, fyrer þessa maa hann saurga sig.

4. Annars skal hann ecke giora sig saurugann fyrer nockurn annann honum Skylldann, a medal hans Folks, so ad hann vanhelge sig ecke.

5. Peir skulu ecke raka nockra Kroonu a sitt Hofud, og eige helldur raka sitt Skiegg af, og eige helldur skiera nockurt Teikn a sinn Lijkama.

6. Peir skulu vera Heilager fyrer sijnum Gude, og eige vanhelga þeirra Guds Nafn, þvi þeir offra DRottins Offre, þeirra Guds Braude, þar fyrer skulu þeir vera Heilager.

7. Peir skulu ecke eiga nockra Port-konu, eda þa sem er leigenn, eda þa sem er skilenn fra sijnum Manne, þvi hann er Heilagur fyrer sijnum Gude.

8. Par fyrer skalltu hallda hann helgann, þvi hann offrar þijns Guds Braude, hann skal vera þier Heilagur, þvi eg DRottinn er Heilagur, sem ydur giorer Heilaga.

9. Nær ein Kiennemanns Dotter tekur ad fremia Saurlifnad, hana skal brenna j Ellde, þvi hun hefur skammad sinn Fodur.

10. Saa sem hinn ypparste Prestur er a medal sinna Brædra, yfer hvors Hofud ad hellt er þvi Smurningar Oleo, og hans Hond er uppfylld, so hann er Klædtekenn, hann skal ecke vera med beru Hofde, og ecke skiera sijn Klæde.

11. Og hann skal ecke koma nær nockurs Dauds Manns Lijkama, og hann skal ecke saurga sig, hvorke a Fodur nie Modur.

12. Hann skal og ecke ganga af Helgedomenum, so hann vanhelge ecke sijns Guds Helgedom; þvi su hin helga (a) Korona og hans Guds Smurningar Oleum, er a honum, Eg er DRottinn.

(a) (Korona) a Ebresku Neser, Hier af kallast Nasarei, þvi þeir hielldu sig fra nockurs slags Mat. Num. 6, 3. Og Samson kalladist Nazareus fra sinnar Modur Kvide, Judicum 13. Og Vor Herra Christus kallast þar af sa Riette Nazareus (og þar ad auk) af Nazareth, Matth 2, 23. So sem sa er hreinn er og heilagur fyrer allre Synd, og þar er eckert oheilagt edur Ovijgt hia honum: Hvorsu sem Gydingarner af hatre og vondsku villdu ecke nefna hann Nazir, helldur Notzri, þad er fordiædur, edur nidurbrotenn so sem einn Rævinge, sem af Tzur, þar þeir eru þo sialfer Nozrim utt-ustrader og utbrunder um alla Verolld. Og mier syneft ad S. Paull Rom. 1. kalle sig Nazareum, þar hann hrosar þar af, ad hann sie utvalenn, eda fraskilenn til Guds Evangelium fra Logmalenu.

13. Hann skal taka sier eina Jungfru, til Eigenkonu,

14. Enn ongva Eckiu, eda Manne fraskilda, eda legna, eda Lausakonu, helldur skal hann taka sier eina Jomfru, af sijnu Folke, sier til Eigenkonu.

15. So hann vanhelge ecke sitt Sæde a millum sijns Folks, þvi eg er DRottinn, sem hann giorer helgann.

16. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

17. Tala þu vid Aaron, og seig þu, Nær þar er nockur vanskopun a nockrum Manne af þijnu Sæde, j ydar Ætt, þa skal hann ecke ganga framm ad offra sijns Guds Braude.

18. Þviad eingenn sa sem hefur nockurn brest skal ganga framm, hvort helldur hann er Blindur, Halltur, Nefliotur, edur sa sem med Vanskopudum Limum er,

19. Edur sa sem hefur bremming nockra a Hende eda Fæte,

20. Edur Keing-hriggiadur, eda hafe hann Vagl a Auga, eda sie hann Skackeygdur, eda Skurfottur, eda Kloadugur, eda Kvidslitenn.

21. Eingenn Prestur af Aarons Sæde, sem hefur nockurn soddann fyrr-greindann Brest a sier, skal ganga framm ad offra DRottins Offre, þvi hann hefur soddann Lyte þar fyrer skal hann ecke ganga framm ad offra sijns Guds Braude.

22. Enn þo skal hann eta af Braude DRottins, bæde af þvi Heilaga, og so af þvi Allra-Heilagasta,

23. Enn þo skal hann ecke ganga til For-

tialld-

tialldsins, og eige helldur framann til Alltaresins, first hann hefur soddann Brest, so ad hann ecke vanhelge minn Helgedom, þvi Eg er DRottinn, sem giorer þa Heilaga.

24. Þetta mællte Moses vid Aaron og hans Sonu, og vid oll Israelis Born.

## XXII. Capitule.

Þad Løgmaal er ┐gert, Hversu ad Einne Foorn og Offre ætte ad vera hatttad.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Seig til Aarons og hans Sona, ad þeir (a) hallde sig fra þvi hinu Helgada Israelis Barna, þad þeir helga mier, og vanhelge ecke mitt Heilaga Nafn, þvi Eg er DRottinn.

(a) (Hallde sig fra) þad er, þeir skyllldu ecke eta af Offrum, utann þeir være alldungis hreiner og helager.

3. So seig þu nu þeim þetta vegna þeirra Nidia, Hvor af ydar Sæde sem framm geingur til þess sem Heilagt er, og Israels Born hafa helgad DRottni, og saurgar sig a þvi hinu sama, hans Saal skal uppræutast fra mijnu Andlite, þvi Eg er DRottinn.

4. Hvor sem er Lijkþraar af Aarons Sæde, eda hefur afraas (af sijnu Hollde) hann skal ecke eta af þvi Heilaga, fyrr enn hann er ordenn hreinn. Hvor sem snerter nockurn ohreinann Lijkama, eda lætur sitt Saad fra sier j Svefne,

5. Og hvor þar snerter vid nockurn Orm, sem honum er Ohreinn, edur einn Mann, sem fyrer honum er Saurugur, og alli þad sem hann kann ad giora Ohreinann,

6. Hvor Saal sem snerter vid nockud af þessu, hun er ohrein til Kvollds, Og skal ecke eta af þvi Heilaga, helldur skal hann first lauga sinn Lijkama j Vatne,

7. Og þa Solenn er undergeingenn, og hann er ordenn hreinn, þa maa hann eta þar af, þvi þad er hans Atvinna.

8. Hann skal ecke eta af nockru Hræe, eda þvi sem slited er af Villudyrum, so hann verde ecke ohreinn af þvi, þvi eg er Drottinn.

9. Þar fyrer skulu þeir hallda mijnar Skickaner, so þeir blade sig ecke Syndonum, og deye af þvi, þa þeir vanhelga sig, Þvi eg er DRottinn sem helgar þa.

10. Og þar skal eingenn annarlegur eta af þvi Heilaga, Hvorke Prestsins Hiw, nie hans Daglauna-Menn.

11. Enn ef Presturenn hefur keypt nockra Saal fyrer sijna Peninga, hun maa eta þar af, Og þad sem fædist j hans Huse, þad maa og eta af hans Braude.

12. Enn verde nockurs Prests Dotter Eigenkona nockurs Framande Manns, þa skal hun ecke eta af þeirre Heilogu Upplyptingu.

13. Enn sie hun Eckia, eda utrekenn fra Manne, og hefur eckert Sæde, og kiemur so aptur til sijns Fodurs Hwss, þa skal hun eta af sijns Fodurs Braude, so sem þa hun var Jomfru, Enn eingenn framande skal eta þar af.

14. Enn ef nockur etur ovitande af þvi Heilaga, hann skal leggia þann Fimmta part þar til, og gefa Prestenum þad med þvi Heilaga,

15. So þeir vanhelge ecke þad Heilaga Israels Barna, þad þeir upp lypta fyrer DRottni,

16. So þeir þynge sig ecke sialfa med Sokum og Misgiorningum, þa þeir eta þeirra ed Heilaga, þvi Eg er DRottinn sem þa helgar.

17. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

18. Seig þu Aarone, og hans Sonum, og ollum Israels Bornum, ad hvor Israelite, eda Framande j bland Israel, sem giora vill sitt Offur, hvort helldur þad er Heit, eda af lostugum vilia, til ad giora DRottni eitt Brenneoffur, ad þocknast honum þar med,

19. Þa skal þad vera Karlkins, Lastalaust, af Nautum, Saudum, eda Geitum.

20. Þier skulud ongvu Offra af þvi, sem

nockurn (b) Breſt heſur a ſier, þvi þad ver-
dur ecke Þacknæmt af ydur.

(b) (Breſt) Yfer þeſſu klagar Malachias 1, 8. miøg hardlega, þvi þad ſem ecke er gott og Oduganlegt er, þad giefa Menn Gude og hans Þienorum, og þar uti finnaſt marger ad vera naumer. Enn hann fordæmer þo ſlijkt, ſo ſem o-þacknæmilegann Hlut, þvi hann elſkar gladværann Giafara.

21. Og hvor hann vill færa DRottni Packlætisoffur, eitt ſierlegt Heit, edur af ſij-
num Loſtugum Vilia, af Nautum, eda Sau-
dum, þad ſkal vera Laſtalauſt, ſo þad verde
þacknæmelegt, þad ſkal ongvann Loſt hafa.

22. Sie þad Blindt, ellegar Veiklad, eda
Sleiged, eda Magurt, eda Boolged, eda Kload-
ugt, þa ſkulud þier ecke offra þad DRott-
ni, og eige helldur giefa neitt Offur af ſod-
dan, a Alltare DRottins.

23. Þann Uxa edur Saud, ſem heſur noc-
kra ſierlega Vanſkopun, eda nockurn van-
ſkapadann Lim, moattu offra af Loſtugum
Vilia, enn j Heit er þad ecke þacknæmelegt,

24. Þu ſkallt og ecke helldur offra DRott-
ni nockru þvi ſem er mared, eda j ſundur
rifed, eda j ſundur ſlited, eda ſoart giort,
þier ſkulud ecke giora ſoddann j ydar Lande.

25. Þu ſkallt og ecke offra nockru þvilij-
ku af Hende þeſs Framanda, hioa ydars Guds
Braude, þvi þad duger ecke, og heſur Lyte,
þar fyrer er þad ecke þacknæmt fyrer ydur.

26. Og DRottinn talade vid Moſen, og
ſagde,

27. Þa eitt Naut, Lamb, eda Kid, fædiſt,
þa ſkal þad vera j ſio Daga hia ſinne Mo-
dur, og a þeim oattunda Deige, og þar epter
moa þad offraſt DRottni, og ſo er þad
Þacknæmt.

28. Hvort þad er helldur Naut eda Sau-
dur, þa ſkal ecke ſloatra þvi a einum ſama
Deige, med ſijnu Afkvæme.

29. Enn þa þier offred DRottni einu
Lofgiordar Offre, ſem þacknæmt kann ad
vera ydar vegna,

30. Þa ſkulud þier eta þad þann ſama
Dag, og leyfa eckert til Morguns, þvi eg er
DRottinn.

31. Þar fyrer hallded Mijn Bodord, og
giored þar epter, þvi Eg er DRottinn,

32. Ad þier vanhelged ecke mitt Heilaga
Nafn, og Eg meige vera Heilagur a millum
Iſraels barna,

33. Þvi Eg er DRottinn, ſa ydur hel-
gar, ſem utleidde ydur af Egyptalande, ad
Eg villde vera ydar Gud, Eg DRottinn.

## XXIII. Capitule.

Skickun um þær Hellstu Hoatijder.

OG DROTTinn talade vid Moſen, og
ſagde,

2. Tala þu til Iſraels Barna, og ſeig þu
til þeirra, Þeſſar eru Hoatijder DRottins,
ſem þier ſkulud Heilagar og mijnar Hoatijder
kalla, nær þier til ſamans komed.

3. Sex Daga ſkalltu erfida, enn ſa Sio-
unde Dagur er ſa Mikle Heilage Sabbaths
Dagur, oa hvorium þier ſkulud koma til ſa-
mans, þier ſkulud eckert erfida a þeim Deige,
þvi þad er Sabbaths Dagur DRottins, j
øllum ydar Hybijlum.

4. Þeſſar eru Hoatijder DRottins, ſem
þier ſkulud kalla Helgar Hoatijder, oa hvori-
um þier komed ſamann.

5. Þann Fiortanda Dag j þeim Firſta
Moanade, ad Aptne, eru Poaſkar DRot-
tins,

6. Og ſa Fimmtande Dagur j ſama Moa-
nade er Oſyrdra Brauda Hoatijd DRot-
tins, þa ſkulud þier eta Oſyrt Braud j ſio
Daga.

7. Sa Firſte Dagur ſkal kallaſt Heilagur
oa medal ydar, þar ſem þier komed tilſa-
mans, þa ſkulud þier aungva (a) Þrælku-
nar Þionuſtu vinna.

(a) (Þrælkunar Þionuſtu) þad er ſu Vinna ſem Menn plaga ad vinna oa Rum-helgum Døgum, til ad utvega ſier med Atvinnu, hvar til Menn høfdu bæde Heimelis Folk ſitt og Kvikfienad, enn Husſijſlan og Guds Þionuſta er ecke fyrerbodenn, ſo ſem er, ad ſioda Mat, giøra hreint, og klæda ſig, etc.

8. Og þier skulud færa Foorner DROTT-ni j Sio Daga, sa Siounde Dagur skal og kallast Heilagur, a hvorium þier komed samann, þa skulud þier eige helldur vinna nockra Prælkunar Pionustu.

9. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

10. Tala þu til Jsraelis Barna, og seig þu til þeirra, Nær þier komed j þad Land sem eg mun giefa ydur, og þier þar skiered ydart Korn, þa skulud þier bera eitt Bindene til Kiennemannsins, af Firsta Grooda ydar Kornskurdar.

11. Þad Bindene skal veyfast fyrer DROTTni, so þad sie þacknæmt af ydur. Enn þetta skal Presturenn giora annann Dagenn epter Sabbathinn:

12. Þier skulud og giora DROTTne eitt Brenne-Offur, þann sama Dag sem ydart Bindene so veyfast af einu Lambe sem er oan Lyta, og skal vera Aars gamallt,

13. Med Mat-Offre, tveimur Tijunda Portum Hvveite Miols, meingudu med Oleo, DROTTni til Offurs eins Sætleiks Jlms, þar til Dryckiar-Offur, einn Fiorda Part af einu Hin Vijns.

14. Og þier skulud ecke eta nytt Brand, eige steikt Ax, eige Korn, fyrr enn þann Dag þier bered ydar GUde Offur, þetta skal vera ein Skickan fyrer ydar Epterkomendur, hvar sem hellst þier bued j ollum ydar Heimelum.

15. Enn þar epter skulud þier telia fra þeim odrum Deige epter Sabbathinn, a hvorium þier bered ydar Veysunar Bindene framm, Sio heila Sabbaths Daga,

16. Allt til annars Dags epter Siounda Sabbath, sem er, Fimtiju Daga skulud þier telia, og færa DROTTni nytt Mat-Offur,

17. Og þier skulud offra þad af ollum ydar Heimelum, sem er, Tvo Veysunar Braud af Tveimur Tijunda Portum Hveitemiols, syrd og bokud, DROTTni til hins Firsta Avaxtar-Offurs.

18. Og þier skulud frammbera, med ydar Braude, Sio Lomb aars gomul Lytalaus, og eirn ungann Uxa, og Tvo Hruta, þad skal vera DROTTins Brenne-Offur, Mat-Offur, og Dryckiar-Offur, þad er Offur Sætleiks Jlms forer DROTTni.

19. Sijdann skulud þier færa eirn Kiarnhafur til Synda-Offurs, og Tvo Lomb Aars gomul, til Packar-Offurs,

20. Þeim skal Presturenn veyfa med þvi Frumfornar Braude, fyrer DROTTni, og med þeim Tveimur Lombum, og þad skal vera DROTTni helgad, og heyra til Prestenum.

21. Og þier skulud bioda þennann Dag, þvi hann skal verda heilagur medal ydar, a hvorium þier komed tilsamans, þier skulud ongva Erfidis Vinnu giora. Þad skal vera einn Eylijfur Setningur, hia ydar Epterkomendum, a ollum ydar Heimelum.

22. Enn þegar þier upp vinned ydart Land, þa skulud þier ecke med ollu allt Korn uppskera, af ydrum Akre, og eige smaasmuglega samansafna, helldur skulud þier laata nockud epter verda, handa þeim Fraatæka og Utlenda, Eg er DROTTinn ydar GUD.

23. Og DROTTinn talade vid Mosen og sagde,

24 Tala þu vid Jsraels Born og seig, þann Firsta Dag j þeim Siounda Maanade, þa skulud þeir hallda þad heilaga Sabbath (Basunu) (b) Blaastursins til Minningar, þa þier komed tilsamans,

(b) (Blaastur) Þetta var Lutin Blaastur til Minningar, um GUD og hans Daadsemdar Verk, hvernenn hann hafde leyst þa, so sem hia oss verdur minnst Christi og hans Endurlausnar, fyrer Evangelii Predikan.

25. Þa skulud þier eckert Erfide vinna, og þier skulud færa DROTTNI Foorner.

26. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

27. Þann Tijunda Dag j þeim Siounda Maanade, er Forlijkunarennar Dagur, hann

hann skal kallast Helgur hioa ydur, so þier komed tilsamans, þa skulud þier þioa ydra Lijkame, og færa DROTTni Foorner.

28. Og þier skulud ongva Vinnu fremia oa þeim Deige, þvi þad er Forlijkunar Dagur, ad þier meiged verda forlijkter vid DROTTinn ydar Gud.

29. Þviad hvor sem ecke þioaer sinn Lijkama, oa þeim sama Deige, hann skal uppslitenn verda froa sijnu Folke.

30. Og hvor sem giorer nockud Erfide a þeim Deige þann vil Eg afmoa fra sijnu Folke,

31. Þar fyrer skulud þier eckert Erfida giora, þad skal vera einn æfinnlegur Setningur hioa ydar Epterkomendum j ollum ydar Hybijlum.

32. Þad er ydar hinn Mikle Sabbaths Dagur, ad þier skulud þioa ydra Lijkame. Enn þann Nijunda Dag j Moanadenum, ad Kvollde, skulud þeir hallda þennann Sabbath, fra Kvollde, og allt til annars Kvollds.

33. Og DROTTinn talade vid Mosen og sagde,

34. Tala þu vid Israels Born, og seig, þann Fimmtanda Dag, j þeim sama Siounda Moanade, er Laufskala Hoatijd, j Sio Daga fyrer DROTTni.

35. Sa Firste Dagur skal kallast Heilagur, ad þier komid tilsamans, og þier skulud ongva Erfidis Vinnu þiona.

36. Þier skulud færa Foorner DRottni j Sio Daga, sa Attundi Dagur skal og kallast Heilagur, so þier komed tilsamans, og þier skulud giora DROTTni ydart Offur, þvi þad er * Samkundu-Dagur, þier skulud ongva Arfidis Vinnu fremia. *Joh. 7,37.

37. Þessar eru nu DROTTins Hoatijder, sem þier skulud hallda Heilagar, ad þier komed tilsamans, og giored DROTTNI Offur, Brenne-Foorner, Mat-Offur, Dryckiar-Offur, og so onnur Offur, hvort a sijnum Deige,

38. Ad auk þess sem er DROTTins Sabbath, og ydar Goafur, og Heit, og loftugar Goafur, sem þier giefed DRottni.

39. So skulud þier hallda DROTTins Hoatijd þann Fimmtanda Dag i þeim Siounda Moanade, Sio Daga samfleytt, þa þier hafed innsafnad Aarsins Avexte af Jordunne. A firsta Deige er þad Sabbath, og þann Attunda Dag er og so Sabbath.

40. Og oa þeim firsta Deige skulud þier taka Avoxtenn af þeim fogru Alldin-Trioam, Palmvidar Kvistu, og Laufgada Kvistu af þyckvoxnum Eikum, og Vijder hioa Lækium, og vera glader fyrer DROTTNI ydrum Gudi j Sio Daga,

41. Og þier skulud hallda DROTTni þa somu Hoatijd, Sio Daga a oarinu. Þad skal vera ein Eylijf Skickan hioa ydrum Epterkomendum, ad þeir hallde so þessa Hoatijd j þeim Siounda Moanade.

42. Sio Daga skulud þier j Laufskoalum bwa, hvor einn sem er Innbyggiare j Israel, hann skal bwa j Laufskoalum,

43. So ydar Epterkomendur meige vita, hvornenn Eg liet Israels Born bwa j Tiolldum, þa Eg leidde þa af Egyptalande, Eg er DROTTinn ydar GUD.

44. Og Moses sagde Israels Bornum soddann DROTTins Hoatijder.

## XXIV. Capitule.

(I) Skickun um Olin i Lampana; (II) Um Skodunar-Braudenn; (III) Um Blotmenn og Gudlastara; (IV) Um þann er slæge Mann jhel, edur lemstrade.

I. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Biod þu Israelis Bornum, ad þau bere þier eitt hreint og skieked Vidsmiors-tries Oleum, til Liosa, sem ad daglega meige loga ofann j Lampana,

3. Fyrer framann Vitnisburdarins Fortialld, j Samkundu-Tialldbwdenne. Og Aaron skal tilbwa þa daglega fyrer DRottni, um Kvolld og Morgna, þetta skal vera ein eylijf Skickan hioa ydrum Epterkomendum.

4. Enn hann skal tilreida Lampana, og þeirre Fegru Liosastiku, dagliga fyrer DROTTNI.

II. 5. Og þu skallt taka Hveite Miol, og baka þar af Tolf Kokur, j hvorre Koku skulu vera Tveir Tijunda (Partar).

6. Sijdann skalltu leggia þær j tvær Rader, sex j Rodinne, yfer þad Fagra Bord fyrer DROTTni.

7. Og þu skallt leggia hreint Reykelse ofan a þær, so ad þær sie (a) Minningar Braud, til eins (b) Ellds, fyrer DROTTni.

(a) (Minningar Braud) Þad eru Skodunar Braudenn, sem hier kallast Kokur, þvi þau voru breid, hvilijkast sem Kokur, og þær fyrer eru þau Minningar Braud, ad Menn skylldu þar med minnast Guds, og predika um hann, eins og Christus skipar oss, ad vier skylldum minnast sijn, þad er, ad vijdfrægia, og predika ut af hans Dauda, 1 Cor. 11, 26.

(b) (Ellds) þad er Offurs.

8. Alla Sabbaths-Daga æfinnlega skal hann tilreida þau fyrer DROTTni, af Israels Bornum, til eylijfs Sattmaala.

9. Og þau skulu heyra Aarone og hans Sonum til, þeir skulu eta þau j Heilogum Stad, þvi þad er hans hid Allra-Helgasta af DROTTins Offre, til eins eylijfs Riettar.

III. 10. Enn þar gieck ut eirn Israelitiskrar Kvinnu Son, sem ad var Sonur eins Egyptsks Manns, og medal Israels Barna, og þraattade vid eirn Mann af Israel, j Herbudunum,

11. Og lastade Nafned og bolvade. Þa leiddu þeir hann fyrer Mosen (hans Moder hiet Selomith Dibri Dotter, af Ætt Dan).

12. Og settu hann j Fangelse, þar til ad þeir feingu ad vita klaart Atkvæde af Munne DROTTins.

13. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

14. Hafed hann ut fyrer Herbudernar, sem so hefur bolvad, og laat þa alla sem þad heyrdu, leggia sijnar Hendur yfer hans Hofud, og laat allann Almugann lemia hann Griote,

15. Og seig Israels Bornum, Hvor sem bolvar sijnum GUde hann skal bera sijna Synd,

16. Hvor sem lastar Nafn DROttins, sa skal Dauda deya, allur Almugenn skal gryta hann, lijka sem so Framande, so skal og Innbyggiarenn vera, nær hann lastar Nafned þa skal hann deya.

IV. 17. Ef nockur slær nockra Manneskiu jhel, þa skal hann vissulega deya,

18. Enn ef hann slær nockud Kvikfie jhel, þa skal hann bitala þad Lijf fyrer Lijf.

19. Enn hvor sem veiter Lemstur sijnum Naunga, þa skal giora vid hann so sem hann hefur giort,

20. * Skada fyrer Skada, Auga fyrer Auga, Tonn fyrer Tonn, so sem hann hefur lemstrad nockra Manneskiu, so skal Mann giora vid hann aptur. * Matth. 5, 38.

21. Hvor sem slær eitt Kvikfie til Dauds, hann skal bitala þad, enn hvor sem slær einn Mann jhel, hann skal deya.

22. Einn Riettur skal vera a medal ydar, so vel fyrer þann Utlenda, sem þann Innlenda, þvi Eg er DRottinn ydar GUd.

23. Þetta sagde Moses til Israels Barna, og þeir leiddu þann Blotmann ut fyrer Herbudernar, og grytu hann jhel, og Israels Born giordu so sem Drottinn hafde boded Mose.

## XXV. Capitule.

Um Fagnadar- edur Jubel-Aared.

Og DRottinn talade vid Mosen a Fiallenu Sinai, og sagde,

2. Tala þu vid Israels Born, og seig þu til þeirra, Þegar þier komed jnn j þad Land sem eg vil giefa ydur, þa skal Landed hallda DRottins Hvijldar Daga,

3. So ad þu saaer j sex aar þitt Akurland,

og

og j sex aar skierer þinn Vijngard, og safner þin Avextenum,

4. Enn a þvi Siounda Aare skal Landed hallda DRottni sinn Stoora Hvijldar Dag, a hvorium þu skallt ecke soa þinn Akur, eige helldur skiera þinn Vijngard.

5. Enn hvad sem upp vex epter þijna Haust-yrkiu, af sier sialfu, þad skalltu ecke upp skiera, og þu skallt ecke safna þeim Vijnþrwo-gum samann, sem vaxa fyrer utann þitt Erside, þviad þad er Landsins Hvijldar aar.

6. Enn þier skulud hallda Landsins Hvijldar Aar þar fyrer, ad þu meiger eta þar af, þinn Pienare, þijn Ambaatt, þinn Daglauna-Madur, þitt Heimafolk, soa Utlende hioa þier,

7. Þijns Fienadar, og Dyranna j þijnu Lande skal allur soa Avoxtur vera til (a) Fæzslu.

(a) (Fædslu) þad er, þad skal vera almenneligt, og ecke saman-beraſt nie geymaſt.

8. Og þu skallt telia soddann Sio Hvijldar aar, ad sio aar sieu talenn siosinnum, og sa tijme þeirra Sio Hvijldar Aara giora niju aar og fiorutiju.

9. Þa skalltu laata bloasa j Basunur, um allt ydart Land, a þeim tijunda Deige, þess Siounda Maanadar, riett a þeim Forlijkunar Deige.

10. Og þier skulud hallda þad Fimtugasta aar heilagt, og kalla þad eitt Frelsunar aar j Landenu, ollum þeim sem þar bwa, þvi þad er ydart Fagnadar Aar. Þa skal hvor hioa ydur koma aptur til sinna Odala, og til sinnar Ættar,

11. Þvi þad Fimmtugasta Aar er ydart Fagnadar Aar. Þier skulud ecke soa, og ecke uppskiera þad sem vex af sier sialfu, og ecke samansafna j Vijngardenum, þad sem upp vex an Erfidis.

12. Þviad Fagnadar Aared skal vera Heilagt a medal ydar, Enn þier skulud eta hvad sem Akurenn ber.

13. Þetta er Fagnadar Aared, ad hvor Madur skal koma aptur til sijns.

14. Nær þu selur þijnum Naunga nockud, eda ef þu kauper nockud af honum, þa skal engenn aseilast sinn Brodur,

15. Helldur skalltu kaupa þad af honum, epter þeirre Tolu fra Fagnadar Aarenu, og epter Avexte epterfilgiande aara, so dyrt skal hann selia þier þad.

16. Epter Aara-fioldanum skalltu laata Kauped uppstijga, og epter þvi sem Aarenn eru soa til, skalltu laata Kauped verda odyrra, þvi hann skal selia þier þad epter Aaranna Grooda.

17. So aseilest nu eingenn sinn Naunga, Helldur Ottast þu fyrer þijnum Gude, þvi Eg er DRottinn ydar Gud.

18. Þar fyrer giored epter mijnum Setningum, og hallded mijn Riettinde, ad þier giored þar epter, so þier meiged ohræddir bua j Landenu,

19. Þvi Landed skal giefa ydur sinn Avoxt, so þier skulud hafa noog ad eta, og Ugglauser bua þar inne.

20. Og ef þu villt seigia, Hvad skulum vier eta a þvi Siounda aare? Þviad vier saaum ecke og sofnum ecke helldur samann nockru Korne.

21. Eg vil þa bioda minne Blessan yfer ydur a þvi siotta aare, so þad skal bera þriggia aara Avoxt,

22. So þier meiged soa a þvi attunda aare, og eta af þeim gamla Avexte, allt til þess nijunda aars, so þier eted af þvi gamla, þar til ad nytt Korn kiemur aptur.

23. Þar fyrer skulud þier ecke selia Landed æfinlega, þviad Landed heyrer mier til, og þier erud Giester og framande fyrer mier,

24. Og þier skulud j ollu ydar Lande laata Landed standa til Lausnar.

25. Nær þinn Broder verdur so faatækur, ad hann selur þier sijna Eign, og kome þa hans naanaste Frænde til hans, og vill leysa, þa ma hann leysa hvad hans Broder hefur sellt.

26. Enn hafe hann öngvann sem þad kann ad leysa, og giete hann med sinne Hende orkad so mikels, ad hann meige leysa nockud þar af,

 27. Þa

27. Þa skulu Menn reikna fraa þvi Aare sem hann sellde, og giefa hinum sem keypte so mikid sem epter stendur, so ad hann meige faa sijna Eign aptur.

28. Enn gietur hann ecke orkad so miklu, ad hann faae nockud aptur, þa skal þad sem hann hefur sellt vera j þess Hende ed keypte, allt til Fagnadar-aarsins, A þvi sama skal þad undann ganga, og hinn skal koma til sinnar Eignar aptur.

29. Hvor sem selur eitt Hwss jnnann Borgar Murveggia, hann skal hafa eins heils aars frest til ad leysa þad aptur, Þad skal vera tijmenn, jnnann hvors hann maa leysa þad aptur.

30. Enn leyse hann þad ecke aptur, fyrr enn allt aared er ute, þa skal sa sem þad keypte, og hans Epterkomendur hallda þvi Hwse æfinlega, og þad skal ecke ganga til Lausnar a þvi Fagnadar-aare.

31. Enn sie þad eitt Hwss, þar j Þorpum, sem eingenn Mwr er j kring, þa skulu Menn reikna þad so sem annad Akur Land, og þad skal vera til Lausnar a þvi Fagnadar-aare, og koma so frelst aptur.

32. Levitanna Stader, og þau Hwss j Stodunum, sem þeirra Eigner eru ut j, meiga alltijd leysast,

33. Enn hvor ad nockud leyser af Levitunum, hvort sem þad eru Hwss, edur Stader, sem hann hefur aatt, þa skal hann laata þad til Lausnar a þvi Fagnadar Aare, Þviad Hwsenn j Levitanna Stodum eru þeirra Eignar gots a medal Jsraels Barna.

34. Enn Akrarner utann fyrer þeirra stodum skulu ecke seliast, þviad þad er þeirra æfinleg Eign.

35. Nær þinn Broder utarmast, og verdur Faatækur hiaa þier, þa skalltu taka hann til þijn, so sem einn Giest edur Framanda, ad hann life hiaa þier,

36. Og þu skallt eckert Okur af honum taka, og eige ofmikels af honum krefia, helldur skalltu ottast DRottinn Gud þinn, So ad þinn Broder meige lifa hiaa þier.

37. Þvi þu skallt ecke faa honum þijna Peninga uppa Okur, eige helldur reikna honum þinn (b) Kost ofdyrann,

(b) (Kost ofdyrann) Okur kallar hann þad sem skiedur med Peningum ofkyrt, þa sa hinn fatæke hlitur ad kaupa edur medtaka Naudsynia-voru til daglegra Þarfenda so dyrt sem sa Auriarne vill, med þvi hann kann hennar ecke aan ad vera.

38. Þvi Eg er DRottinn ydar Gud, sem leidde ydur af Egyptalande, ad eg giæfe ydur Canaans Land, og være ydar Gud.

39. Ef þinn Broder utarmast hiaa þier, og ad hann selur sig sialfann þier, þa skalltu ecke laata hann þiona þier so sem einn æfenlegann Præl,

40. Helldur skal hann vera hiaa þier sem einn Giestur, eda Daglauna-Madur, og hann skal þiona þier til Fagnadar-Aarsins.

41. Þa skal hann laus fra þier fara, og hans Born med honum, og skal so koma aptur til sinnar Ættar, og til sinna Forfedra Eignar.

42. Þvi þeir eru mijner Þionar, sem eg ut færde af Egyptalande, Þar fyrer skulu þeir ecke seliast sem eylijfer Prælar.

43. Og þu skallt ecke hardlega Drottna yfer þeim, helldur skalltu hrædast þinn Gud.

44. Enn ef þu villt fa þier Præla edur Ambaatter, þa skalltu kaupa þau af Heidingium, þeim sem eru j kringum ydur,

45. Af Giestkomendum, sem eru Framande a medal ydar, og af þeirra Epterkomendum, sem þeir hafa fædt j ydar Lande.

46. Þa somu skulud þier hafa til Eigendoms, og þier skulud bijhallda þeim, og ydar Born epter ydur, til Eignar æfenlega, þa skulud þier laata vera æfenlega Præla. Enn yfer ydar Brædrum, Jsraels Bornum, skal eingenn hardlega Drottna yfer odrum.

47. Þa nockur giestur, eda framande, verdur rijkur hiaa þier, og þinn Brodur utarmast hiaa honum, so ad hann selur sig þeim Framanda, eda Utlenda, hiaa þier, eda nockrum af hans Ætt,

48. Þa skal hann, epter hans Kaup, hafo riett til ad verda laus aptur.

49. Og þar moa nockur af hans Brædrum leysa hann, eda hans Fodurbroder, eda hans Brædrungur, eda einhvor annar af hans Naanustu Frændum, Eda giete hann so miked forþienad med sinne sialfs Hende, þa skal hann leysa sig.

50. Og hann skal reikna vid þann sem hann keypte, fra þvi Aare sem hann sellde sig oa, allt til Fagnadar Aarsins, Og Peningarner skulu reiknast, epter Aaratolunne, sem hann sellde sig oa, Og hann skal reikna siin Dagleg laun þar med, um þann allann tijma.

51. Stande enn þa morg Aar epter jnn til Fagnadar Aarsins, þa skal hann þar epter giefa þess meira fyrer sijna lausn, epter þvi sem hann er keyptur.

52. Enn sieu þar fraa Aar, epter til Fagnadar-Aarsins, þa skal hann og þar epter aptur giefa sier til frelsis,

53. Og hann skal reikna siin dagleg laun þar i, Aar fra Aare, Og þu skallt ecke streingelega loata Drottna yfer honum fyrer þijnum Augum.

54. Enn giete hann ecke leyst sig med þessum hætte, þa skal hann ganga frials ut oa þvi Fagnadar Aare, og hans Born med honum.

55. Þviad Jsraels Born eru mijner Þienarar, sem eg leidde ut af Egyptalande, Eg er DRottinn ydar Gud.

XXVI. Cap. 1. Þier skulud ecke giora ydur Afgude, eige helldur Bijlæte, þier skulud ecke helldur uppreysa ydur nockra Stolpa, eda setia Merke-Steina j ydru Lande, ad þier tilbidied fyrer þvi,

2. Þvi Eg er DROTTinn ydar Gud. Hallded mijna Hvijldardaga, Hrædest fyrer mijnum Helgedom, Eg er DRottinn.

## XXVI. Capitule.

(I) Blessan yfer þaa er hallde Bodord Drottens. (II) Bolvan yfer þa sem ecke villde hlijda Drotne.

I. 3. Ef þier ganged ut epter mijnum Setningum, og hallded mijn Bodord, og giored þau,

4. Þa vil eg giefa ydur Regn a sijnum Tijma, Jordenn skal og giefa sinn Grooda, og Trien a Morkenne skulu bera sinn Avøxt,

5. Og Þreskinnnar tijmenn skal vara allt til Vijnyrkinnar, og Vijnyrkiann skal noa til Kornsædis tijmans, Og þier skulud hafa gnogt Brauds, og bua tryggelega j ydru Lande,

6. Eg vil giefa Frid j ydru Lande, ad þier skulud meiga sofa, og eingenn skal fæla ydur. Og Eg vil j burtu taka þau skadsomu Dyr af ydar Lande, og þar skal eckert Sverd ganga j giegnum ydar Land.

7. Þier skulud ellta ydar Ovine, og þeir skulu falla fyrer ydrum Sverdum,

8. Fimm af ydur skulu ellta Hundrad, og Hundrad af ydur skulu ellta Tiju Þusunder, þviad ydar Oviner skulu falla under Sverd fyrer ydur.

9. Og Eg vil snua mier til ydar, og loata ydur vaxa, og avaxtast, og Eg vil stadfesta minn Saattmaala vid ydur.

10. Og þier skulud eta af þvi enu gamla, og burtvarpa þvi gamla þegar þad nya kiemur.

11. Eg vil bua a medal ydar, og mijn Saala skal ecke burt kasta ydur.

12. * Eg vil ganga oa millum ydar, og eg vil vera ydar Gud, so skulud þier verda mitt Folk. * 2 Cor. 6, 16.

13. Þvi Eg er DROTTinn ydar Gud, sem leidde ydur af Egyptalande, ad þier skylldud ecke vera þeirra Þrælar, og Eg hefe sundurbroted ydart Ok, og loated ydur ganga rietta.

II. 14 Enn vilied þier ecke hlyda mier, og ecke giora oll þesse Bodord,

15. Og vilied fyrerlijta mijna Setninga, og ydar Saaler utskufa mijnum Riettindum, so

þier

þier hallded ecke oll mijn Bodord, og giø-red onytann minn Soattmoala,

16. Pa vil Eg giora ydur þetta, Eg vil vitia ydar med Hrædslu, Kaunum, og Kolldusyke, ad ydart Andlit skal visna, og ydar Lijf vanmegnast. Pier skulud forgiefins soa ydru Sæde, og ydrer Oviner skulu upp eta þad,

17. Og Eg vil setia mitt Auglit j giegn ydur, og þier skulud verda slegner af ydrum Ovinum, og þeir sem ydur Hata skulu drottna yfer ydur, og þier skulud flya þo eingenn ellte ydur.

18. Enn ef þier vilied þa enn ecke, ofann a þad, hlyda mier, þa vil Eg giora þad enn Sio sinnum meira, ad refsa ydur, fyrer yd-ar Synda Saker,

19. So Eg sundurbriote ydar hardudle-ga Drambseme. Og Eg vil loata Hime-nenn verda ydur sem Joarn, og ydar Jord sem Kopar,

20. Og allt ydar Omak og Erfide skal vera til einskis, ad ydar Land skal ei giefa sinn Groodur, og Trien j Landenu skulu ecke bera sinn Avoxt.

21. Og ef þier þa enn ganged j giegn mier, og vilied ecke hlyda mier, þa vil Eg enn gio-ra þad siofallt meira, ad sloa uppa ydur fyrer ydvarra Synda Saker.

22. Og Eg vil senda Villudyr a medal y-dar, þau skulu uppsvelgia ydar Born, og jhel rijsa ydart Fie, og fæcka ydur, og ydar veiger skulu verda j eyde.

23. Vilied þier þa enn ecke þar med loata typta ydur af mier, helldur ganged j giegn mier,

24. Pa vil Eg og ganga j giegn ydur, og sloa ydur þa enn siofalldlega, fyrer ydar Synda Skulld,

25. Og leida eitt hefndar Sverd yfer y-dur, sem hefna skal mijns Soattmoala. Og ef þier safned ydur samann j ydrum Stodum, þa vil Eg samt senda Drepsoott a medal ydar, og giefa ydur j ydra Ovina Hendur.

26. Pa vil Eg fordiarfa ydar Brauds Mægter, so ad Tiju Kvinnur skulu baka yd-art Braud j einum Ofne, og ydart Braud skal vegast ut med Vigt, og nær þier eted skulud þier ecke verda metter.

27. Vilied þier þa enn ecke med þessu hly-da mier, helldur ganga j giegn mier,

28. Pa vil Eg ganga j giegn ydur j min-ne Reide, og Eg vil refsa ydur siosinnum hardara fyrer ydar Synder,

29. So þier skulud eta ydra Sona og y-dra Dætra Kiot.

30. Og Eg vil afmoa ydar Hæder, og upprickia ydrum Bijlætum, og Eg vil kasta ydar Lijkomum ofann a ydar Afgude, og mijn Soal skal hafa Vidbiood vid ydur,

31. Og Eg vil eydeleggia ydar Stade, og nidurbriota ydar Helgedoms Kyrkiur, og Eg vil ecke luckta ydarn sætann Ilm.

32. So vil Eg eyda Landed, ad ydar Ovinar, sem bua j þvi, skulu hrædast þar vid.

33. Enn ydur vil Eg burtdreifa, a me-dal Heidingia, og utdraga Sverdid bak ep-ter ydur, ad ydart Land verde j eyde, og ydar Borger skulu nidurbriotast,

34. Pa skulu Landenu þocknast sijner Sabbaths Dagar, so leinge sem þad liggur j eyde, og þier erud j ydra Ovina Lande.

35. Joa, þa skal Landed hallda heilagt, og vel bijhaga sijn Sabbath, alla þa Stund þad liggur eyde, þar fyrer, ad þad kunne ecke ad hallda Heilagt, þa þier oattud ad hallda Heilagt, þa þier biuggud þar jnne.

36. Og þa sem epter verda af ydur, þa vil Eg giora so deighiartada, j þeirra Ovi-nalande, ad eitt þiootande Lauf skal ellta þa, og þeir skulu flya þar fyrer, lijka sem eitt Sverd ellte þa, og falla, þo eingenn ellte þa.

37. Og hvor skal falla (a) yfer hverann annann, lijka sem fyrer Sverdi, enn þo ad eingenn ellte þa. Og þier skulud ecke þora ad reisa ydur upp j moote ydar Ovinum,

(a) (Yfer hverann annann) eins og þad skiedur i Flotta Felmtre, og Ognar otta.

38. Og þier skulud eydeleggiast medal Heydin-

Heidingianna, og Land ydra Ovina skal uppsvelgia ydur.

39. Enn hvorier sem þa lifa epter af ydur, þeir skulu vanmegnast j þeirra Misgiorningum, j þeirra Ovina Lande, og þeir skulu vanmegnast j þeirra Fedra Misgiorningum.

40. Þa skulu þeir kannast vid sijna Misgiorninga, og sinna Forfedra Misgiorninga, med hvoriumi þeir hafa syndgast jmote mier, og gienged jgiegn mier.

41. Þar fyrer vil Eg ganga jgiegn þeim, og j burt reka þa j sinna Ovina Land, og þar skal þa þeirra Oumskorna Hiarta audmykia sig, og þa skal þeim (b) vel þocknast þeirra Misgiorninga Refsing.

(b) (Velþocknast) þad er, eins og þeir høfdu Lyst til sinna Synda, og Andstyggd a mijnum Riettindum, so skulu þeir þar þvert a moote hafa Lyst og Þocknan a sijnu Straffe, og seigia, O hvad riett er oss skied, þacker hafe vorar bølvudu Synder, O hvad rietteliga, Elskuleg GUd! þad er einn a'varlegur Angurs og Jdranar Þanke og Ord. Þar lærer einn af Hiartans Grunne, ad hata og spotta sialfann sig, vei mier, hvad hef eg giørt. Þad þocknast nu GUde so hann verdur nædugur aptur, þar fyrer høfum vier Jslendskad þad Ord (Misgiørning) Misgiørningsins Straff, til ad giefa þennann Skilning, annars hliodar þad lijka sem þeir skyllde hafa Þocknan a sijnum Misgiørningum. Eins er og þad Ord ad skilia, Laudenu þocknast sijn Hvijld, þad er, þad seiger, GUd giører riett j Straffenu, so þad meige liggia j Eyde vegna Folksins, hvar epter þad langar. Under sonnu Grein talar Esaias 40, 2.

42. Og Eg vil minnast a minn Soattmoala vid Jacob, a minn Soattmoala vid Jsaac, og a minn Soattmoala vid Abraham,

43. Og Eg vil þeinkia a þad Landid, sem af þeim er yfergiefed, og hefur þocknan a sijnum Hvijldardøgum, þa Stund ad þad liggur eyde fyrer þeim, og þeim skal bijhaga Refsing sinna Misgiorninga, þvi þeir forsmoadu mijn Riettinde, og þeirra Soaler høfdu Vidbiod a mijnum Setningum.

44. Og þo þeir sieu j þeirra Ovina Londum, þa hefe Eg ecke helldur utskufad þeim, og hefe ecke helldur soddann Vidbiod vid þeim, so sem þad skule vera utgiort um þa, og minn Soattmoale vid þa skyllde ecke framar gillda, þvi Eg er DROTTinn þeirra GUd.

45. Eg vil minnast a minn Firsta Soattmoala vid þa, þa Eg færde þa af Egyptalande, fyrer Heidingianna Augum, so Eg være þeirra GUd, Eg DROTTINN.

46. Þessar eru þær Skickaner, Riettur, og Logmoal, sem DROTTinn giorde j millum sijn, og Jsraels Barna, a Fiallenu Sinai, fyrer Hond Moses.

## XXVII. Capitule.

Logmoal (I) um Heite; (II) Um Tijunder.

I. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þu vid Jsraelis Born, og seig þu til þeirra, Þa nockur giorer DROTTni eitt sierligt Heit, so hann leggur Virding a sitt Lijf,

3. Þa skal þetta vera Lausnenn, eins Manns Personu, fra Tvijtugs Alldre og jnn til Sextugs Alldurs, skallt þu virda fyrer Fimmtiju Silfurs Sikla, epter Helgedomsins Sikle.

4. Kvenmans Personu fyrer Þriatiju Siklos.

5. Fra Fimm Aarum, og til Tuttugu Aara, þa skalltu virda eins Manns Personu fyrer Tuttugu Siklos, enn eirnrar Kvinnu Personu fyrer Tiju Siklos.

6. Sie nockur Moanadar gamall, og jnn til Fimm Aara, þa skalltu virda eins Manns Personu fyrer Fimm Silfur Siklos, og eirnrar Kvinnu Personu fyrer þria Silfur Siklos.

7. Enn sie nockur Sextiju Aara gamall, og þadann af elldre, þa skalltu virda eins Manns Personu fyrer Fimmtan Siklos, enn eirnrar Kvinnu Personu fyrer Tiju Siklos.

8. Enn sie hann of-faatækur til soddann Virdingar, þa skal hann færa sig fyrer Prestinn, og so skal Presturenn virda hann, enn hann skal virda þann, epter þvi sem hann kann ad forþiena med sinne Hende, sem Heitenu lofad hefur.

9. Enn sie þad nockud Kvikfie sem Menn kunna ad offra DROTTni, þa er þad allt Heilagt sem DROTTni er giefed.

10. Ecke skal byta þvi j burt, eda skipta um þad þvi enu gooda fyrer annad Vondt, eda Vondt fyrer Gott. Enn ef nockur byter einu Fie j burt fyrer annad, þa skal þad hvortveggia Helgast DROTTNI.

11. Enn sie þad Ohreint Kvikfie, þad sem Menn þora ei ad offra DROTTNI, þa skal færa þad fyrer Prestinn,

12. Og Presturenn skal virda þad, hvort þad er gott eda ilt, og lijka sem Presturenn virder þad, þa skal þad so vera.

13. Enn vilie nockur leysa þad, þa skal hann giefa þann Fimmta Part meir enn þad er giort.

14. Ef nockur helgar sitt Hws, ad þad skule vera DRottni heilagt, þa skal Presturenn virda þad, hvort þad er gott, eda illt, og lijka sem Presturenn virder þad, þa skal þad so vera.

15. Enn vilie sa leysa þad aptur sem þad hefur helgad, þa skal hann leggia þann Fimmta Part þar til, af Peningunum, sem þad var virdt fyrer, so maa þad verda hans.

16. Ef nockur helgar DRottni einn Akur, af sijnu Erfda Gotse, þa skal hann virdast þar epter sem hann ber Avoxt til. Vere hann einn Homor Byggs, þa skal hann gillda Fimmtiju Silfur Siklos.

17. Enn ef hann helgar sinn Akur fraa Fagnadarins Aare, þa skal hann gillda epter sijnu verde,

18. Enn hafe hann helgad hann epter Fagnadar Aared, þa skal Presturenn reikna epter þeim Aarum, sem epterstanda til Fagnadar Aarsins, og virda hann þess mun minna.

19. Vilie sa leysa Akurenn aptur sem hann hefur helgad, þa skal hann leggia þann Fimmta Part yfer af Peningum, framm yfer þad sem hann var virdtur fyrer, so maa hann bijhallda honum.

20. Enn vilie hann ecke leysa hann, enn selur hann nockrum ödrum, þa skal hann ecke meir standa honum til Lausnar,

21. Helldur sa same Akur skal vera DRottni helgadur, nær hann blijfur Frijals aa þvi Fagnadar Aare, lijka sem einn Akur, sem olldungis er helgadur, og skal verda Prestsins Erfda Gots.

22. Enn ef nockur helgar DRottni einn Akur, þann hann hefur keypt, og er ecke hans Erfda Gots,

23. Þa skal Presturenn reikna hvad hann gillder, allt til Fagnadar Aarsins, so skal hann aa sama Deige giefa þa Virding, so hann sie DRottni helgadur.

24. Enn aa Fagnadar Aarenu skal hann koma aptur til þess sem hann sellde, og vera hans Erfda Gots j Landenu.

25. Oll Virding skal skie epter Helgedomsins Sikle, enn einn Siklus giörer Tuttugu Gera.

26. Firsta Burd aa medal ydars Fienadar, sem DRottni tilheyrer þo aadur, þad skal eingenn Drottni helga, hvort þad er helldur Naut eda Sauder, þvi þad heyrer DRottni til.

27. Enn sie þa nockud ohreint aa Fienadenum, þa skal Mann leysa þad epter sijnu verde, og leggia þann Fimmta Part þar framm yfer. Vilie hann ecke leysa þad, þa maa þad seliast fyrer sitt Verd.

28. Menn skulu eckert olldungis helgad selia edur leysa, þad nockur hefur endelega helgad DROTTNI, af ollu þvi sem hann aa, hvort þad er helldur Madur, Fienadur, edur Erfdar Akur,

29. Þvi allt soddann Bannfært Gots er þad Allra Helgasta fyrer DROTTNI. Menn skulu og ongvann Bannfærdann

Mann leysa, helldur skal hann vissulega deya.

II. 30. Allar Tijunder j Landenu, bæde af Jardarennar Grooda, og so af Tricanna Avexte, heyrer DROTTni til, og skal vera DROTTNJ Helgad.

31. Enn vilie nockur leysa sijna Tijund, þa skal hann giefa Fimmta Part þar yfer,

32. Og alla þa Tijund af Nautum og Saudum, og þad sem geingur under Vondenn, þad skal vera ein Heilog Tijund Drottins.

33. Eige skal spyria ad þvi, Hvort þad er Gott eda Vondt, og eige helldur skipta þvi, enn sie þvi bytt, þa skal hvortveggia vera Heilagt, og ecke leysast.

34. Þesse eru þau Bod, sem DROTTinn baud Mose, til Jsraelis Barna, oa Fiallenu Sinai.

Endet þeirrar Þridiu Bokar Moses.

# Numeri.

# Fiorda Bok Moses.

## I. Capitule.

Moses og Aaron læta telia Jsraelis Børn.

Og DRottinn talade vid Mosen, j Eydemorku Sinai, j Samkundu-Tialldbudenne, a þeim firsta Deige, j ødrum Manade, oa ødru Aare epter þad sem þeir voru utgeingner af Egyptalande, og sagde,

2. Reikned Summu oa Manntale allrar Jsraels Barna Samkundu, epter þeirra Kinkvijslum, og þeirra Fedra Hwsum og Nofnum, Allt Karlkins, Høfud fyrer Høfud,

3. Fra tuttugu Aara Alldre, og þar fyrer ofann, alla þa sem færer eru til Bardaga j Jsrael. Og þu og Aaron skulud telia þa epter sijnum Her,

4. Og þid skulud taka til yckar, Joa, einn af hvorre Kinkvijsl, til eins Hofdingia yfer sijns Fodurs Hws.

5. Þesse eru Nofn Hofdingianna sem standa skulu hia ydur. Af Ruben sie Elizur, Son Zedeur.

6. Af Simeon skal vera Zelumiel, Son Zuri Sadai.

7. Af Juda skal vera Nahesson, Son Amminadab.

8. Af Jsaschar skal vera Nethaneel, Son Zuar,

9. Af Zebulon skal vera Eliab, Son Helon.

10. Af Josephs Bornum, Af Ephraim skal vera Elisama, Son Amihud. Af Manasse skal vera Gamliel, Son Pedazur.

11. Af BenJamin skal vera Abidan, Son Gideoni.

12. Af Dan skal vera Ahieser, Son AmmiSadai.

13. Af Asser skal vera Pagiel, Son Ochran.

14. Af Gad skal vera Eliasaph, Son Deguel.

15. Af Nephthali skal vera Ahira, Son Enan.

16. Þesser eru þeir Yppurstu af Almuganum, Hofuds Menn j Ætt sinna Fedra, sem voru Hofudenn yfer Þusund j Jsrael.

17. Og Moses og Aaron toku þa til sijn, so sem þeir voru nu Nofnum nefnder.

18. Þeir sofnudu lijka ollum Almuganum til samans, a þeim firsta Deige j ødrum Maa-

Mánade, og reiknudu þa epter þeirra Fæ-dingu, Kine, epter þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, twijtuga, og þadann af elldre, Ho-fud fyrer Hofud,

19. Sem Drottinn hafde boded Mose, Og þeir toldu þa j Eydemorku Sinai.

20 Born Rubens Israelis Frumgietna Sonar, epter þeirra Fædingu, Kinslood, þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, Hofud fyrer Hofud, aller Karlmenn, twijtuger og þadann af elldre, þeir sem færer voru til Strijds,

21. Voru reiknader til Ættar Rubens, Sex og fiorutiju Þusunder, og fim̃ Hundrud.

22. Born Simeons epter þeirra fædingu, Kine, og þeirra Fedra Hwse, Tolu og Naf-ne, Hofud fyrer Hofud, aller Karlmenn, twijtuger, og þadann af elldre, sem færer voru til Strijds,

23 Voru reiknader til Simeons Ættar, niu og fimmtiju Þusunder, og þriu Hundrud.

24. Born Gads epter þeirra Fædingu, Kine, Fedra Hwse og Nafne, fra tuttugu Aarum, og þadann af Elldre, sem færer voru til Bardaga,

25. Voru reiknader til Kins Gad, fimm og fiortiju Þusunder, sex Hundrud og fimm-tijer.

26. Born Juda epter þeirra Fædingu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nafne, twijtu-ger, og þadann af elldre, þeir sem færer voru til Bardaga,

27. Voru reiknader til Juda Ættar, fio-rar og siotiju Þusunder, og sex Hundrud.

28. Born Isaschars epter þeirra Fædin-gu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, froa tuttugu aarum, og þadann af elldre, sem færer voru til Bardaga,

29. Voru talder til Kins Isaschars, fio-rar og fimmtiju Þusunder, og fiogur hundrud.

30. Born Sebulons epter þeirra Fædin-gu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, froa tuttugu aarum, og þadann af elldre, sem færer voru til Strijds,

31. Voru reiknader til Sebulons Ætt-ar, sio og fimmtiju Þusunder, og fiogur Hundrud.

32. Born Josephs af Ephraim, epter þeirra Fædingu, Kine, þeirra Fodurs Hwse, og Nofnum, froa tuttugu aarum, og þadann af elldre, sem fær voru til Bardaga,

33. Reiknader til Kins Ephraims, fioru-tiju Þusunder, og fimm Hundrud.

34. Born Manasse epter þeirra Fædingu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nafne, froa tuttugu Aarum, og þadann af elldre, sem fæ-rer voru til Strijds,

35. Voru talder til Manasse Ættar, tolf og tuttugu Þusunder, og Tvohundrud.

36. Born BenJamins, epter þeirra Fæ-dingu, Kine, þeirra Fedra Hwsum, og Nof-num, tuttugu Vetra, og þadann af elldre, þeir sem duganleger voru ad draga j Strijd,

37. Voru reiknader j Kin BenJamins, fimm og þriatiju Þusunder, og fiogur Hundrud.

38. Born Dans epter þeirra Fædingu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, twij-tuger og þar yfer, þeir sem hrauster voru ad draga j Strijd.

39. Voru talder j Kin Dans, tvær og sextiju Þusunder, og sio Hundrud.

40. Born Asser, epter þeirra Fædingu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, fra tuttugu Aarum, og þadann af elldre, sem dugleger voru ad draga j Strijd,

41. Voru talder til Kins Asser, ein og fio-rutiige Þusund, og fimm Hundrud.

42. Born Nephthali, epter þeirra Fædin-gu, Kine, þeirra Fedra Hwse, og Nofnum, twituger Menn, og þadann af Elldre, sem du-ganleger voru ad draga j Strijd,

43. Voru talder til Kins Nephthali, þriar og fimmtiju Þusunder, og fiogur Hundrud.

44. Þesser eru þeir, hvoria Moses og Aa-ron reiknudu, med þeim Tolf Israelis Hofdin-gium, af hvorium sierhvor Þessara var yfer sinna Fedra Hwse.

45. Og

45. Og Summa allra Israelis Barna, epter þeirra Fedra Hwse, fra tuttugu aarum, og þadann af elldre, sem Vopnfærer voru til Bardaga, medal Israel,

46. Var Sexsinnum hundrad Þusunder Manna, þriar Þusunder, fimm hundrud og fimmtigu.

47. Enn Levitarner epter þeirra Fedra Ætt, voru ecke talder hier med.

48. Þvi DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

49. Þu skallt ecke telia Levi Ætt, og eige reikna þeirra Manntal a medal Israelis Barna,

50. Helldur skalltu skicka þa til Samkundu-Tialldbudarennar, og til allra hennar Kera, og til alls hennar umbwnadar, Og þeir skulu bera Tialldbudena, og allann þann umbwnad sem henne filger, og þeir skulu vakta þaruppa, og skulu setia siju Tiolld kringum Tialldbudena.

51. Og þegar Menn eiga ad ferdast þa skulu Levitarner taka Tialldbudena ofann, Enn sem Herenn setur sijnar Tialldbuder þa skulu þeir reisa Tialldbudena upp. Og ef nockur Framande kiemur þar vid, þa skal hann deya.

52. Israels Børn skulu legra sig, sierhvor j sijnum Herbudum, og hiaa Merke sijns Skara.

53. Enn Levitarner skulu legra sig j kringum Samkundunnar Tialldbud, so ad þar kome ecke nockur Reide yfer Almwgann Israelis Barna, þvi skulu Levitarner hallda vardhalld hiaa Samkundu-Tialldbwdenne.

54. Og Israels Børn giordu allt, so sem DRottinn hafde boded Mose.

# II. Capitule.

Hvernig Israels Folk ætte ad setia Herbuder.

Og DRottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

2. Israels Børn skulu reisa þeirra Herbuder utan j kringum Samkundu-Tialldbudena, hvor under sijnu Merke og Teikne, epter þeirra Fedra Husum.

3. Juda skal setia sijnar Herbuder fyrer Austann framm, med sijnu Merke og Her, þeirra Hofuds Madur Nahesson, Son Amminadab,

4. Og hans Her, sem er ad Manntale fiorar og siotiju Þusunder, og sex Hundrud.

5. Næst honum skal Isaschars Kinkvijsl sijnar Herbuder reisa, þeirra Hofuds Madur Nethaneel Son Zuar,

6. Og hans Her reiknadur fiorar og fimmtiju Þusunder, og fiogur Hundrud.

7. Þar næst Sebulons Ætt, þeirra Hofuds Madur Eliab, Son Helon,

8. Og hans reiknadur Her sio og fimmtijger Þusunder, og fiogur Hundrud.

9. So ad aller þeir sem heyra til Juda Herbudum, eru j eirure Summa, Hundrad Þusunder, og sex og aattatiju Þusunder, og fiogur Hundrud, sem heyrer til þeirra Her, og þeir skulu reisa fremster.

10. J Sudur skal vera Merke Rubens, og Tialldbud, med hans Her, þeirra Hofuds Madur Elizur, Son Sedeur,

11. Og hans reiknadur Her, sex og fiorutijger Þusunder, og fimm Hundrud.

12. Næst honum skal Simeons Kinkwattur setia sijnar Herbuder, þeirra Hofuds Madur Selumiel Son Zuri Sadai,

13. Og hans reiknadur Her, niju og fimmtijger Þusunder, og þriu Hundrud.

14. Þar næst Kin Gads, þeirra Hofuds Madur Eliasaph, Son Reguels,

15. Og hans reiknadur Her er fimm og fiorutijger Þusunder, sex Hundrud og fimmtigu.

16. So ad aller þeir sem heyra til Rubens Herbudum, eru ad Manntale reiknader Hundrad Þusund, og eitt og fimmtijgu Þusund, og Fiogur Hundrud, og fimmtijge, sem heyrer til þeirra Her, Og þeir skulu reisa næst þeim ødrum.

 17. Þar

17. Þar nærst skal Samkundu-Tialldbudenn fara, med Levitanna Herbudum, riett a medal Herbudanna, og allt epter þvi sem þeir leggia sig nidur, so skulu þeir og ferdast, hvor j siinum stad, under siinu Merke.

18. J Vestur skulu Ephraims Herbuder og Merke liggia med siinum Her, þeirra Høfuds Mann skal vera Elisama Son Amihud,

19. Og hans Her er ad Manntale fiorutiju Þusunder og fimm Hundrud.

20. Enn hia honum skal Manasse Ætt legra sig, þeirra Høfuds Mann Gamliel Son Pedazur,

21. Og hans reiknadur Her, tvær og þriatiju Þusunder, og tvo hundrud.

22. Þar nærst BenJamins Kinþattur, þeirra Høfuds Mann Abidan, Son Gideoni,

23. Hans reiknadur Her ad Manntale, fimm og þriatiju Þusunder, og fiogur Hundrud.

24. So ad aller þeir sem heyra til Ephraims Herbudum, þeir eru saman reiknader epter Manntale, Hundrad og aatta Þusund, og eitt Hundrad, þeir sem heyra til hans Her, Og þeir skulu vera j þridiu Fylkingu þa þeir reisa.

25. Herbuder Dans og Merke skal vera j Nordur, med siinum Her, þeirra Høfuds Mann Ahieser Son Ammi Sadai,

26. Hans reiknadur Her, tvo og sextiju Þusund, og sio Hundrud.

27. Hia honum skal Asser Kinþattur legra sig, þeirra Høfuds Mann Pagiel Son Ochran,

28. Hans reiknadur Her, eitt og fiorutiju Þusund, og fimm Hundrud.

29. Þar nærst Nephthali Ætt, þeirra Høfudsmann Ahira Son Enan,

30. Hans reiknadur Her, þriar og fimmtiju Þusunder, og fiogur Hundrud,

31. So ad aller þeir sem heyra til Herbudum Dan, eru reiknader Hundrad Þusund, sio og fimmtiju Þusunder, og sex Hundrud, Og þeir skulu vera þeir enu seinustu, sem ad reisa ut med þeirra Merkium.

32. Þetta er Manntalid allra Jsraels Barna, epter þeirra Fedra Hwse, og Herbudum, med þeirra Her, Sex hundrud Þusunda, þriar Þusunder, fimm Hundrud og fimmtije.

33. Enn Levitarner voru ecke talder j þessu Manntale, ꝏ medal Jsraelis Barna, so sem DRottinn hafde bifalad Mose.

34. Og Jsraelis Børn giordu allt samann, so sem DRottinn hafde boded Mose, og settu Herbudernar under þeirra Merke, og drogu ut, hvor j siinum Kinþætte, epter þeirra Fedra Hwse.

# III. Capitule.

(I) Tala Levitanna og þeirra Embætte; (II) Tala Frumgetninganna, og þeirra Lausn.

I. Þesse er Kinþattur Aarons og Moses, ꝏ þeim tijma er DRottinn talade vid Mosen, ꝏ Sinai Fialle,

2. Og þesse eru Nøfn Aarons Sona. Sa Frumgietni Nadab, þar nærst Abihu, Eleazar og Jthamar.

3. Þesse eru Aarons Sona Nøfn, sem smurder voru til Kiennemanna, og þeirra Hendur voru fylldar til Prests Embættis.

4. Enn Nadab og Abihu doou fyrer DRottni, þa þeir offrudu annarlegum Ellde fyrer DRottni, j Eydemørku Sinai, og þeir høfdu ongva Syne. Enn Eleazar og Jthamar fromdu Prests Embætted med þeirra Fødur Aaron.

5. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

6. Laattu Levi Ætt koma framm, og skicka þu hana fyrer Prestenn Aaron, ad þeir þione honum,

7. Og take vara uppa hans og alls Almwgans Þionustu, fyrer Samkundu-Tialldbudenne, og ad þeir take vara ꝏ Þionustu j Tialldbudenne,

8. Og ad giæta allra Verkfæra j Samkundu-Tialldbwdenne, og hafe vakt a Israelis Bornum, til ad þiena j Tialldbudarennar þionustu.

9. Og þu skallt giefa Levitana Aarone, og Sonum hans, þesser eru honum aldeilis giefner af Israelis Bornum,

10. Enn Aaron og hans Sonu skallt þu skicka til, ad þeir vakte uppa Kiennemannlegt Embætte, Ef þar geingur framande til, hann skal deya.

11. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

12. Sia, Eg hefe teked Levitana medal Israels Barna, j stadinn allra Frumgietninga, sem ad opna sitt Modur Lijf a medal Israels Barna, so ad Levitarner skulu heyra mier til.

13. Þviad þeir firstu Frumburder eru mijner, sijdann eg j hel sloo alla Frumburde j Egyptalande, þa helgade eg mier allann Frumburd j Israel, ad þeir skylidu heyra mier til, bæde af Monnum, og Fienade, Eg DRottinn.

14. Og DRottinn talade vid Mosen j Eydemorku Sinai, og sagde,

15. Tel þu Levi Born, epter þeirra Fedra Hwse, og Kinþattum, alla þa sem eru Karlkins, eins Manadar gamler, og þar yfer.

16. Og so talde Moses þa epter Ordum DRottins, so sem hann hafde bifalad.

17. Og þesse voru Nofn Levi Barna, Gerson, Kahath, Merari.

18. Enn Gersons Barna Nofn, j þeirra Kinþattum, voru Libni og Simei.

19. Born Kahaths j þeirra Kinþattum, voru Amram, Jezehar, Hebron og Usiel.

20. Born Merari j sijnum Kinþattum, voru Maheli og Musi, þetta eru Levitanna Kinþætter, epter þeirra Fedra Heimkynne.

21. Þessar eru Ætternar af Gerson, Libnitar og Simeitar,

22. Þeir sem talder voru voru Sio Þusund, og Fimm Hundrud, aller þeir sem voru af Karlkine, eins Manadar gamler, og þadann af elldre.

23. Og su sama Gersonita Ætt skal vera bak vid Tialldbwdena j Vestur.

24. Eliasaph, Son Laels, skal vera þeirra Hofdinge.

25. Þeir skulu taka vara uppa Samkundu-Tialldbwdenne, sem er a Tiallldenu, og Tialldbwdenne, og a þeirra Skylu, a Dwknum fyrer Samkundu-Tialldbwdardyronum,

26. Og a Heinge-Tiolldunum til Forgardsins, og a Dwknum j Forgardsins Dyrum, sem geingur j kringum Tialldbwdena, og j kringum Alltared, a Stogonum, og a ollu þvi sem heyrer til þeirre Pionustugiord.

27. Þessar eru Ætter Kahaths, Amranitar, Jezeharitar, Hebronitar, og Usielitar,

28. Af Karlkine, sem voru Manadar gamler, og þadann af elldre, ad tolu atta Þusund, og Sex Hundrud, sem vara toku a Helgedomenum.

29. Og þeir skulu legra sig a þeirre Sydre Sijdu hia Tialldbwdenne.

30. Elizaphan, Son Usiels, skal vera þeirra Hofdinge.

31. Og þeir skulu vardveita Orkena, Borded, Kiertastikuna, Alltared, og þau Verkfære, sem heyra til Helgedomenum, ad giora Pienustu med, og Dwkana, og þad sem heyrer til þeirre Þionustu.

32. Enn Eleazar, Son Aarons Prests, skal vera sa ellste yfer ollum Levitanna Yfermonnum, yfer þeim sem eru skickader til ad vardveita Helgedomenn.

33 Þessar eru Merari Ætter, Mahelitar, og Musitar, sem voru ad tolu Sex Þusunder, og Tvo Hundrud,

34. Af ollu Karlkine, Manadar gamler, og þadann af elldre.

35. Zuriel Son Abihail skal vera þeirra Hefdinge. Og þeir skulu legra sig a Nyrdre Sijdu vid Tialldbudena.

36. Og þeirra Embætte skal vera, ad taka vara a Fiolunum, og a Stanngunum, a Stolpunum, og a Footunum til Tialldbudarennar, og a Umbunadenum sem heyrer til þeirre Pionustu,

37. So og a Stolpunum Forgardsins, allt umkring, og a Footunum, og a Hælunum, og so lijka Stogunum.

38. Enn Moses og Aaron og hans Syner skulu setia þeirra Landtiolld fyrer Austan Samkundu-Tialldbudena; so þeir meige taka vara uppa Helgedomenum, og a Israels Bornum. Enn ef nockur Framande kiemur þar nær, þa skal hann deya.

39. Aller Levitarner, þeir sem Moses og Aaron hofdu taled, epter Orde DROTTins, af ollu Kine, Manadar gamler, og þadann af elldre, j þeirra Kinþattum, voru Tvær og Tuttugu Þusunder.

II. 40. Og DROTTinn sagde til Mosen, Tel alla Frumgietninga, þa sem eru Karlkins, medal Israelis Barna, Manadar gamla, og þadann af elldre, og tak toluna þeirra Nafna.

41. Og þu skallt frastilia, Mier til Handa, sem er DROTTinn, Levitana, j Stadinn allra Frumburda a medal Israels Barna, og Levitanna Fienad, j Stadenn alls Firsta Frumburdar, medal Israels Barna Fienadar.

42. Og Moses talde, sem DROTTinn baud honum, alla Frumburde a medal Israelis Barna, og Nofnenn allra Frumburda af Karlkine, medal Israels Barna,

43. Fra eins Manadar gomlum, og þadan af Elldre, voru Tvær og Tuttugu Þusunder, og Tvo Hundrud, og þrijr og Siotiju j sinne Summu.

44. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

45. Tak þu Levitana j Stadinn allra Frumgietinna medal Israels Barna, og Levitanna Fienad, fyrer þeirra Fienad, so ad Levitarner heyre Mier til, sem er DRottinn.

46. Enn þu skallt taka Peninga til Lausnar, fyrer þau Tvo Hundrud þria og Siotiju, sem Frumgietner eru af Israels Bornum, sem eru yfer Levitanna Tolu,

47. Fimm Siklos fyrer hvort Hofud, til Lausnar, epter Helgedomsins Sikle (enn Tuttugu Gera gillda eitn Sikel.)

48. Og þu skallt afhenda Aarone og hans Sonum þa Lausnar Peninga fyrer þa sem so eru yfer Toluna.

49. So tok Moses Lausnar Peninga af þeim sem afhlaups voru framm yfer Levitanna Tolu,

50. Af þeim Frumgietnu Israelis Bornum, Þusund, þriu Hundrud, og Fimm og Sextiju Siklos, epter Helgedomsins Sikle,

51. Og hann gaf Aarone, og hans Sonum þa, epter DROTTins Orde, sem DROTTinn hafde boded Mose.

# IV. Capitule.

Moses tilskickar Levitu, fra 30 til Fimmtugs Alldurs ad hafa Embætte og þess Byrde i Samkundu-Tialldbudenne.

Og DROTTinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

2. Tak þu Summuna Kahaths Barna, fra Levi Bornum, epter þeirra Ættlegg, og Fedra Huse,

3. Þa sem eru þriatiju ara, og þadann af elldre, til Fimmtugs Alldurs, og alla þa sem duganleger eru ad draga j Strijd, ad þeir þione j Samkundu-Tialldbudenne.

4. Þetta skal vera Embætte Barna Kahaths, j Samkundu-Tialldbudenne, sem er þad Allra Helgasta.

5. Þa Herenn svipter Herbudunum, þa skal Aaron og hans Syner ganga jnn, og ofann taka Fortiallded, og vefia j þvi Orkena Vitnisburdarins,

6. Og

6. Og leggia Pekiuna af Greifingia Skinnum þar yfer, og breida eina Gula Abreidu þar ofann a, og leggia Steingurnar þar til.

7. Og þeir skulu og so breida eina gula Abreidu yfer Skodunar Borded, og leggia þar til Fotinn, Skeidernar, Skaalernar, og Kønnurnar til ad skeinkia af og aa, og þad hvørs-daglega Braud skal liggia þar hiaa.

8. Og þeir skulu breida þar yfer eina Dreyrrauda Abreidu, og þekia þad sama med einu Pake af Greifingia Skinne, og setia Steingurnar þar til.

9. So skulu þeir taka eina (a) gula Abreidu, og sveipa þar j Kiertastikuna, og Lampana, Liosa Saxinn, Skaraklosana til ad slockva Liosinn, og øll Vidsmiørs Kierinn, sem heyra til Pionustugiørdinne,

(a) (A gula Abreidu) hier af sia Menn, ad þau firstu Tiølldenn hafa ecke vered mislit, helldur hefur hvørt eitt vered Einlitt, þau sem voru Gul, þau voru alldungis Gul, og þau sem voru hvijt, voru alldungis Alhvijt.

10. Og sveipa eirnre Gulre Abreidu þarum, kringum þad alltsamann, af Greifingia Skinne, og leggia þad uppa Steingurnar.

11. So skulu þeir breida eina Gula Abreidu yfer Gull-Alltarid, og hylia þad med einu Pake af Greifingia Skinne, og setia Steingurnar þar til.

12. Þeir skulu sveipa øll þau Kier sem þeir hafa til Pionustunnar j Helgedomenum, j eirnre Gulre Abreidu, og hylia þar yfer med Greifingia Skinne, og leggia þad a Steingurnar.

13. Þeir skulu og so klaara Oskuna af Alltarenu, og breida eina Skarlats Abreidu þar yfer,

14. Og leggia øll Verkfærenn þar til, sem ad heyra til þeirre Pionustu, Elldponnur, Matkroka, Ausur, Munnlaugar, med øllum Alltaresins Kierum, og þeir skulu breida eitt Pak þar yfer, af Greifingia Skinne, og setia Steingurnar þar til.

15. Sem Aaron og hans Syner hafa þetta fullgiørt, og þaked Helgedomenn og allann hans umbunad, þegar Herenn svipter Herbudum, epter þad skulu Børn Kahaths ganga jnn, og bera þad, og þeir skulu ecke snerta Helgedomenn, so þeir deye ecke. Þessar eru Byrder Barna Kahaths, j Samkundu-Tialldbudenne.

16. Og Eleasar, Son Aarons Prests, skal standa fyrer þvi Embætte, og skicka Oleum til ad lysa med, og Jurter til Reykelsis, og þad daglega Matoffur og Smurningar Oleum, ad hann siae fyrer allre Tialldbudenne, og øllu þvi sem þar er jnne j Helgedomenum, og fyrer Helgedomsins Verkfærum.

17. Og DROTTinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

18. Þier skulud ecke laata Kinþaatt Kahathitanna Ættar fordiarfast, aa medal Levitanna.

19. Enn þetta skulud þier giøra þeim, so þeir meige lifa, enn ecke deya, ef þeir snerta þad Allra Helgasta. Aaron og hans Syner skulu ganga jnn, og setia hvørium sitt Embætte og Byrde.

20 Enn þeir skulu ecke ganga jnn ad skoda Helgedomenn oforþeinkter, so ad þeir deye ecke.

21. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

22. Tak Manntals Summu af Gersons Børnum, epter þeirra Fedra Huse, og ættum,

23. Fra þriatiju aarum, og þadann af elldre, allt til Fimmtugasta aars, og skicka þeim øllum sem duganleger eru ad draga j Strijd, ad þeir hafe eitt Embætte j Samkundu-Tialldbudenne.

24. Enn þetta skal vera Embætte þeirrar Gersonitis Ættar, ad þiona og bera.

25. Þeir skulu bera Langtiølldenn Tialldbudarennar, og Samkundu-Tiallded, og

hennar Þak, og Þokenn af Greifingia Skinnunum, sem þar eru utann um, og Dwkenn j Samkundu-Tialldbwdar Dyronum, og Langtiolldinn Tialldbwdar Gardsins, og Dwkenn j Portdyronum Forgardsins,

26. Þess sem er j kringum Tialldbwdena og Alltarid, og þeirra stog, og oll þeirra Embættis Verkfære, og allt þad sem heyrer til þeirra Embætte.

27. Børn Gersons skulu giora allt sitt Embætte, epter Aarons og hans Sona Ordum, med ollu þvi sem þeir skulu bera og giora. Og þier skulud sioa til, ad þeir take vara a ollum sijnum Byrdum.

28. Og þetta skal vera Gersonitanna Barna, og ættar Embætte, j Samkundu-Tialldbwdenne, og þeirra Vardhalld skal vera under Hende Ithamar Sonar Aarons Prests.

29. Þu skallt og skicka Merari Bornum, epter þeirra Kinþwattum og Fedra Hwse,

30. Fra þriatiju aarum, og þar yfer, til Fimmtiju aara, ollum þeim sem duganleger eru ad draga j Strijd, ad þeir hafe eitt Embætte j Samkundu-Tialldbwdenne,

31. Enn þeir skulu taka vara uppa þessare Byrde, epter ollu þeirra Embætte j Samkundu Tialldbwdenne, ad þeir bere Fialernar, Steingurnar og Stolpana, og Fæturnar til Tialldbwdarennar,

32. So og Stolpana til Tialldbwdar gardsins allt umkring, og so Fæturnar, og Hælana, og Stoginn, med ollum sijnum Verkfærum, epter ollu þeirra Embætte. Þier skulud skipa til hvorium sinn Part a Byrdonum, til ad taka vara uppa þeim somu Verkfærum.

33. Þetta skal vera Embætte Merari Barna ættar, allt þad sem þeir skulu giora j Samkundu-Tialldbwdenne, under Hende Ithamar Sonar Aarons Prests.

34. Og Moses og Aaron og Hofdingiar Almwgans toldu Kahathitanna Born, epter þeirra Kinþwattum og Fedra Hwse,

35. Þrijtuga, og þadann af elldre, jnn til Fimmtiju aara, alla sem duganleger voru ad draga j Strijd, ad þeir skylldu hafa Embætte j Samkundu-Tialldbwdenne,

36. Og þeir reiknuduſt Tvær Þusunder, Sio Hundrud, og Fimmtijge.

37. Þetta er Manntal Kahathitanna Ættar, sem hofdu aller nockud ad þiona, j Samkundu-Tialldbwdenne, hvoria Moses og Aaron toldu epter DRottins Orde fyrer Mosen.

38. Gersons Born voru og so talenn i þeirra Kinkvijslum, og Fedra Husum,

39. Fra þriatiju aara gomlum, og þar yfer, til fimmtugs Alldurs, aller þeir sem duganleger voru j Strijd, ad þeir skylldu hafa Embætte j Samkundu-Tialldbudenne,

40. Og þeirra Manntal var tvær Þusunder sex Hundrud og þriatiju.

41. Þad er Talann og Ætt Gersons Barna, hvorier aller hofdu nockud ad þioona j Samkundu-Tialldbwdenne, hvoria Moses og Aaron toldu epter Orde DROTTINS.

42. Merari Born voru og so talenn, epter þeirra Ættum og Fedra Hwsum,

43. Fra þriatijger aarum og þar yfer, til fimmtugs Alldurs, aller þeir sem duganleger voru til Strijds, ad þeir skylldu hafa Embætte j Samkundu-Tialldbudenne,

44. Og Summann var þriar Þusunder og tvo hundrud.

45. Þetta er Summann og Merari Barna Ætt, sem Moses og Aaron toldu, epter Ordum DROTTINS fyrer Mosen.

46. Manntalsins Summa allra Levitanna, sem Moses og Aaron, med Israels Hofdingium toldu epter þeirra Kinþwattum, og Fedra Hwsum,

47. Fraa þriatiju Aarum og þar yfer, jnn til fimmtugs Alldurs, sem aller geingu inn ad giora hvor sitt Embætte, og bera Byrdar j Samkundunnar-Tialldbwd,

48. Voru aatta Þusunder, Fimmhundrud og aatta tijger,

49. Hvor-

49. Hvorier talder voru epter DRottins Ordum fyrer Mosen, hvor til sijns Embættis og Byrdar, sem DRottinn hafde boded Mose.

## V. Capitule.

(I) Um Hreinsun Herbudanna (II) Vandlætingar Løgmaal um Konu er hlype fra Manne sijnum.

1. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Biod þu Israels Bornum, ad þau laate ut af Herbudunum alla Spitelska Menn, og alla þa sem hafa afroas, og þa sem eru ohreiner ordner af nockru daudu Lijke, Bæde Menn og Kvinnur, þa skulud þier laata ut fyrer Herbudernar,

3. So þeir saurge ecke þeirra Herbuder, j hvorium eg by a medal þeirra,

4. Og Israels Born giordu so, og lietu þa ut fyrer Herbudernar, sem DRottinn hafde boded Mose.

5. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

6. Tala þu til Israelis Barna, og seig þu til þeirra, Þegar nockur Madur, eda Kvinna, giorer nockra Synd j moote eirnre Manneskiu, og syndgast þar med j moote DRottni, þa er su Saal sekud.

7. Og þeir skulu jaata sijna Synd, þa sem þeir hafa giort, og þeir skulu forlijka sijna Skulld med Høfuds Summunne, og skal yfer leggia þann fimmta part þar til, og giefa honum sem þeir hafa a moote syndgad.

8. Enn sie þar eingenn sem þann Bitaling eige ad medtaka, þa skal þad giefast DRottni, fyrer Prestinn, ad undannteknum þeim Forlijkunar Hrut, med hvorium hann verdur forlijktur.

9. So skal og hvort Upplyptingar offur, af ollu þvi sem Israels Born helga og offra Prestenum, heyra honum til,

10. Og ef nockur helgar nockud, þa skal þad og heyra honum til, og ef nockur giefur Prestenum nockud, þa skal þad og so heyra honum til.

II. 11. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

12. Tala þu vid Israelis Born, og seig til þeirra, Ef nockurs Manns Eigennkvinna hleypur burt fra sijnum Manne, og misgiorer vid hann,

13. Og einhvor liggur med henne, enn er þo huled fyrer Mannsins Augum, og er duled fyrer honum, ad hun sie saurgud, og hann gietur ecke bijvijsad þad uppa hana, þvi hun er ecke stadenn ad Verkenu,

14. Og Vandlætingar Ande upptendrar Mannenn, so ad hann vandlæter um sijna Kvinnu, hvort sem hun er hrein eda ohrein.

15. Þa skal hann leida hana til Prestsins, og giora eitt Offur fyrer henne, einn tijunda part af Epha Byggmiol, og rijde þar øngvo Oleo a, eige helldur leggia Reykelse þar uppa, þvi þad er eitt vandlætis Offur, og Aminningar Offur, sem minner a Misgiorningenn.

16. Sijdan skal Presturenn hafa hana framm, og leida hana fyrer DRottinn,

17. Og hann skal taka af þvi Helga Vatne j einu Leirkere, og Dupt af Golfe Tialldbudarennar, og kasta j Vatned.

18. Og hann skal leida Kvinnuna fyrer DRottinn, og giora bert hennar Høfud, og leggia Minningar-Offred, sem er eitt Vandlætis Offur, uppa hennar Hond. Og Presturenn skal hafa beiskt Bolvad Vatn j sinne Hende,

19. Og hann skal særa Kvinnuna, og seigia til hennar, Hafe eingenn Madur leiged med þier, og ertu ecke hlaupenn fra þijnum Manne, ad þu hefur saurgad þig, þa skal þetta Beiska Bolvada Vatn ecke skada þig.

20. Enn siertu hlaupenn fra þijnum Manne, ad þu ert saurug, og hafe nockur Madur leiged med þier, annar enn þinn Madur.

21. Þa skal Presturenn særa Kvinnuna, med eirnre þvilijkre Særingu, og seigia til hennar, DRottinn setie þig til Bolvanar

og til eins Eids a medal þijns Folks, so ad DRottinn laate þijnar Lendar upp visna, og þinn Kvid upp bolgna.

22. So gange nu þetta bølvada Vatn j þinn Kvid, so ad þinn Kvidur bolgne, og þijnar Lendar visne. Og Konann skal seigia, Amen, Amen.

23. Sijdan skal Presturenn skrifa þessa Bølvan uppa eitt Blad, og þvo þad af med þvi beiska Vatne,

24. Og skal giefa Konunne af þvi beiska og bølvada Vatne ad Drecka. Og sem þad beiska og bølvada Vatn er komed j hana,

25. Þa skal Presturenn taka þad Vandlætis Offur af hennar Hende, og veysa þvi fyrer DRottni til eins Matoffurs, og offra þvi a Alltarenu, Sem er,

26. Hann skal taka eina Hønd fulla af Matoffre til hennar Aminningar Offurs, og upptendra þad a Alltarenu, og epter þad giefe hann Konunne Vatned ad drecka.

27. Og sem hun hefur drucked Vatned, sie hun þa ohrein, og hafe misgiort j moote sijnum Manne, þa skal þad bølvada Vatn fara j hana, og vera henne beiskt, so ad hennar Kvidur upp boolgne, og hennar Lendar visne, Og su Kona skal vera Bølvan a medal sijns Folks.

28. Enn sie su Kvinna ecke ohrein, helldur hrein, þa skal þad ecke skada hana, so hun meige verda Frioffsøm.

29. Þetta er Vandlætis Logmaal, nær ein Kvinna hleypur fra sijnum Manne, og verdur ohrein.

30. Eda ef einn Vandlætingar Ande upp kveiker Mannenn, ad hann vandlæter um sijna Kvinnu, So hann leider hana fyrer DRottinn, og Presturenn giører henne allt þetta epter þessum Løgum.

31. So skal Madurenn vera saklaus j þeim Misgiorninge, Enn Konann bere sinn Misgiorning.

# VI. Capitule.

(I) Log og Rettur Nazaræanna. (II) Blessan Arons.

I. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þu til Israels Barna, og seig þu til þeirra, Nær ad No kur Madur, eda Kvinna giører DRottni sierlegt (a) Heit ad hallda Bindende,

(a) (Heit) A Ebresku kallast Nezer, og hann sem þad helldur, heiter Nazir, Epter hvoriu vor Herra JEsus Christus kallast Nazarenus, Og hann er sa sanne Nazir, Fraskilenn, Helgadur, Svo sem Levit. 21, 12.

3. Sa skal halld a sig fra Vijne og sterkum Drick, Hann skal og ecke drecka VijnEdik, eda Edik af ødrum sterkum Drick, og ecke neitt þad sem giort er af Vijnberium Hann skal hvorke eta ferst nie þurr Vijnber,

4. So lienge sem soddann hans Heit stendur yfer, Hann skal ecke eta þad sem giort er af Vijnvide, hvorke Rusin, Kiarnann, nie Borkenn.

5. Allann þann tijma sem soddann hans Heit varer, þa skal eingenn Hoarknijfur koma a hans Høfud, fyrr enn tijmenn er vte, sa hann lofade DRottni, þvi hann er heilagur, og skal laata sitt Hoar med Frelse vaxa a sijnu Høfde.

6. Allann þann tijma sem hann hielt DRottni þessu Bindinde, þa skal hann ecke jnn ganga til nockurs Frammlidins.

7. Hann skal og ecke helldur saurga sig a Lijke sins Fødurs, Modur, Brodurs, eda sinnar Systur, þvi Heitstreinging hans Guds er yfer hans Høfde,

8. Og allann þann tijma sem hans Heitstreinging varer, skal hann vera DRottni helgadur.

9. Og ef nockur deyr hia hønum sforvarandis braadlega, þa verdur hans Høfud saurugt j hans Heite, þar fyrer skal hann raka sitt Høfud a þeim Deige sem hann hreinsast, þad er sa siøunde Dagur.

10. Og a þeim aattunda Deige skal hann bera Tvær Turtildufur, eda Tvær ungar Dufur til Prestsins, fyrer Samkundu Tialldbudardyrnar. 11. Og

11 Og Presturenn skal giora þa adra til eirnrar = yndafoornar, Enn adra til Brennefoornar, og forlijka hann fyrer þad, ad hann giorde sig ohreinann, a þvi dauda Lijke,

12. Og helge so sitt Høfud þann sama Dag, so hann kunne ad hallda DRottni ut sinn Heitstreingingar tijma, Og hann skal leida eitt Aarsgamallt Lamb framm, til eins Skulldaoffurs. Og þeir umlidnu Dagar skulu vera forgiefins, Søkum þess, ad hans Heit saurgadest.

13. Petta er Løgmaal hans sem noekud Heit hefur samed, þegar hans Heitlofunar tijme er ute, þa skal hann leidast fyrer Samkundu-Tialldbudarennardyr.

14. Og hann skal bera sitt Offur framm fyrer DRottinn, eins aars gamallt Lamb til Brenneoffurs, Lyta laust, og eirn Veturgamlann Saud oan Lyta til eins Synda-Offurs, og einn Hrwt oan Lyta til eins Packar-Offurs.

15. Og eina Korf med Osyrdar Kokur, af Hveite Miole, meingad med Oleo, og Osyrda Leifa yferriodada med Oleo, og þeirra Matoffur og Dryckiaroffur.

16. Og Presturenn skal bera þad framm fyrer DRottinn, og giora hans Syndaforn, og hans Brenneforn.

17. Og Hrwtenn skal hann færa til eirnrar Packlætis-foornar fyrer DRottni, og Korfenna med þvi Osyrda Braude, og hann skal og so giora hans Mat-Offur, og Dryckiar-Offur.

18 Og* hann skal raka sitt Hofud sem Heitenu hiet wti fyrer Samkundu-Tialldbudarennar Dyrum, þa Heited er wte. Og hann skal taka sijns Heitis Hofud-Hoar, og kasta þeim a Elldenn sem er under Packlætis Offrenu. *Post: G: B: 21, 23. 24.

19 Og hann skal taka þann sodna Boog af Hrwtnum, og eina Osyrda Koku af Korfenne, og einn Osyrdann Leif, og leggia þad a hans Hendur, sem Heitenu Hiet, epter þad hann hefur rakad sitt Hoar af,

20. Og hann skal veysa þvi fyrer DRottni, þad er Prestenum helgad med Veyfunar Bringunne, og Upplyptingar Bognum, þar epter maa sa sem Heited giorde drecka Vijn.

21. Petta er Løgmaaled um þann sem giorde Heited, og lofade DRottni sijnu Offre, vegna sijns Heitis, fyrer utann þad hann annars gietur af Stad komed, so sem hann hefur heited skal hann giora epter Løgmaale sijns Heitis.

II. 22. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

23. Tala þu til Aarons og hans Sona, og seig þu, So skulud þier seigia til Israels Barna, þa þier blessed þau.

24. DRottinn blesse þig og vardveite þig.

25. DRottinn laate sijna Asionu lysa yfer þig, og sie þier Naadugur.

26. DRottinn hefie sitt Auglite yfer þig, og giefe þier Frid.

27. Pvi þier skulud leggia mitt Nafn yfer Israels Born, ad eg blesse þau.

## VII. Capitule.

Foorner þeirra Tolf Hofdingia Israelis.

Pa Moses hafde uppreist Tialldbwdena, smurt hana, og helgad, og oll hennar Kier, og so smurt og helgad Alltared med ollum sijnum Kierum,

2. Pa offrudu Israelis Hofdingiar, þeir sem Høfudenn voru i þeirra Fedra Hwse, þvi þeir voru þeir enu Yppurstu og medal Kinþattanna, og stoodu firster a medal þeirra sem talder voru.

3. Og þeir baaru sitt Offur framm fyrer DRottinn, Sex yfer-hulda Vagna, og Tolf Uxa, jaa einn Vagn fyrer Tvo Hofdingia, og eirn Uxa fyrer hvorn af þeim, og þeir færdu þa fyrer Tialldbwdena.

4. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

5. Medtak þu þad af þeim, so þad meige þiena til Pionustugiordar, i Samkundu-

Tialldbudenne, og gief þad Levitunum, sierhvorium epter sijnu Embætte.

6. Pa tok Moses Vagnana og Uxana, og gaf Levitunum þa,

7. Og hann gaf Bornum Gersons Tvo Vagna, og Fiora Uxa, epter þeirra Embætte,

8. Og hann gaf Bornum Merari Fiora Vagna, og aatta Uxa, epter þeirra Embætte, under Ithamar Aarons Prests Sonar Hende.

9. Enn hann gaf Bornum Kahaths eckert, fyrer þvi, ad þeir hofdu eitt Heilagt Embætte a sier, og urdu ad bera a sijnum Oxlum.

10. Og Hofdingiarner offrudu til Alltaresins Vijgslu, a þeim Deige sem þad var vijgt, og offrudu þeirra Gaafum fyrer Alltarinu.

11. Og DROttinn sagde til Mosen, Laattu sierhvorn Hofdingianna færa sitt Offur framm, a sijnum Deige, til Alltaresins Vijgslu

12. A Firsta Deige offrade Nahesson Son Amminadab, af Ætt Juda, sinne Gaafu.

13. Og hans Gaafa var eitt Silfurfat, Hundrad og þriatiju Sikla verdt, ein Silfur Skaal, Siotiju Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, meingad med Oleo til eins Matoffurs.

14. Par til ein Gullskeid, Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

15. Einn Uxe af Nautunum, einn Hrwtur, eitt Lamb aars gamallt til Brenneoffurs,

16. Einn Kiarnhafur til Synda-Offurs.

17. Og Tveir Uxar til eins Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Fimm Kiarnhafrar, og Fimm Lomb aars gomul. Petta er Gaafa Nahesson Sonar Amminadab.

18. A odrum Deige offrade. Nethaneel Son Zuar, Hofdinge Isaschar.

19. Hans Gaafa var eitt Silfurfat, Hundrad og þriatijge Sikla verd, ein Silfurskaal Siotijge Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia Fullt Hveitemiols, meingad med Oleo til eins Matoffurs.

20. Par til ein Gullskeid, Tiu Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

21. Einn Uxe af Nautunum, einn Hrwtur, eitt Lamb Aars gamallt til Brenne-Offurs,

22. Einn Kiarnhafur til Synda-Offurs.

23. Og Tvo Uxa til Packar-Offurs, Fimm Hrwta, Fimm Kiarnhafra, og Fimm Lamb aars gomul. Petta er Gaafa Nethaneel, Sonar Zuar.

24. A þridia Deige offrade Eliab Son Helon, Hofdinge yfer Bornum Zebulon.

25. Hans Gaafa var einn Silfurdiskur Hundrad og þriatijge Sikla verdur, ein Silfur Skaal, Siotijge Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols blandad med Oleo, til eins Matoffurs.

26. Ein Gullskeid Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

27. Einn Uxe af Nautum, einn Hrwtur, og eitt Lamb aars gamallt til Brennefornar.

28. Einn Kiarnhafur til Synda-Offurs.

29. Og Tveir Uxar til Pack-Offurs, Fimm Hrwta, Fimm Kiarn-Hafra, og Fimm Lomb aars gomul. Pesse er Gaafa Eliab Sonar Helon.

30. Enn Fiorda Dag offrade Elizur, Son Sedeur, Hofdingenn fyrer Bornum Ruben.

31. Hans Gaafa var einn Silfur Diskur Hundrad og þriatijge Sikla verdur, ein Silfur Skaal Siotijge Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo til Matoffurs.

32. Ein Gullskeid, Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

33. Einn Uxe af Nautunum, einn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brenneoffurs.

34. Eirn Kiarnhafur til Synda-Offurs.

35. Og Tveir Uxar til eins Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Fimm Kiarnhafrar, og Fimm Lomb aars gomul. Þetta er Gaafa Elizurs, Sonar Sedeur.

36. Enn Fimmta Dag offrade Selumiel Son Zuri Sadai, Hofdingenn fyrer Bornum Simeonis.

37. Hans Gaafa var eirn Silfurdiskur, Hundrad og þriatijge Sikla verdur, ein Silfurskoal Siotijge Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo til Matoffurs.

38. Ein Gullskeid Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

39. Einn Uxe af Nautunum, einn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brennefornar,

40. Einn Geit-Hafur til Synda-Offurs.

41. Og Tveir Uxar til Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Kiarnhafrar Fimm, og Fimm Lomb aars gomul. Og þesse er Gaafa Selumiel Sonar Zuri Sadai.

42. A Siotta Deige offrade Eliasaph Son Deguels, Hofdinge yfer Bornum Gad.

43. Hans Gaafa var einn Silfurdiskur, Hundrad og þriatiju Sikla verdur, ein Silfurskoal Siotijge Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo til Matoffurs.

44. Ein Gullskeid Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

45. Eirn Uxe af Nautunum, einn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brennefoornar,

46. Eirn Geithafur til Synda-Offurs.

47. Og Tveir Uxar til Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Fimm Geithafrar, og Fimm Lomb aars gomul. Og þesse er Gaafa Eliasaphs Sonar Deguels.

48. Enn Siounda Dag offrade Elisama, Son Amihud, Hofdingenn yfer Ephraims Bornum.

49. Hans Gaafa var eirn Silfurdiskur, Hundrad og þriatiju Sikla verdur, ein Silfur Skoal Siotijge Sikla verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols blandad med Oleo, til Matoffurs.

50. Ein Gullskeid, Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

51. Eirn Uxe af Fienadenum, eirn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brenneoffurs,

52. Eirn Geithafur til Synda-Offurs.

53. Og Tveir Uxar til Pack-Offurs, Fimm Hrwtar, Fimm Kiarnhafrar, Fimm Lomb aars gomul. Þesse er Gaafa Elisama Sonar Amihud.

54. A Attunda Deige offrade Gamliel Son Pedazur, Hofdinge yfer Manasse Bornum.

55. Hans Gaafa var eirn Silfurdiskur Hundrad og þriatiju Sikla verdur, ein Silfurskoal Siotijge Sikla verd epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo til Matoffurs.

56. Ein Gullskeid Tiju Sikla Gulls verd, full af Reykelse.

57. Eirn Uxe af Nautunum, eirn Hrwtur, aars gamallt Lamb til Brennefoornar,

58. Eirn Geithafur til Synda-Offurs.

59. Og Tveir Uxar til Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Kiarnhafrar Fimm, og Fimm Lomb Aars gomul. Þetta er Gaafa Gamliels Sonar Pedazur.

60. Þann Nijunda Dag offrade Abidan Son Gideoni, Hofdingenn fyrer Bornum BenJamins.

61. Hans Gaafa var eirn Silfurdiskur, Hundrad og þriatijge Siklos verdur, ein Silfurskoal Siotijge Siklos verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols blandad med Oleo til Matoffurs.

62. Ein Gullskeid Tiju Siklos Gulls verd, full af Reykelse.

63. Eirn Uxe af Nautunum, einn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brenneoffurs,

64. Eirn Geithafur til Synda-Offurs.

65. Og

65. Og Tveir Uxar til Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Fimm Kiarnhafrar, Fimm Lomb aars gomul. Og þetta er nu Goafa Abidans, Sonar Gideoni.

66. Tijunda Dag offrade AhiEser, Son AmmiSadai, Hofdinge fyrer Bornum Dan.

67. Hans Goafa var eirn Silfurdiskur, Hundrad og þriatijge Siklos verdur, ein Silfur Skoal, Siotijge Siklos verd epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo til Matoffurs.

68. Ein Gullskeid Tiju Siklos Gulls verd, full af Reykelse.

69. Eirn Uxe af Nautunum, eirn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brenneoffurs,

70. Eirn Geithafur til Synda-Offurs.

71. Og Tveir Uxar til Packar-Offurs. Fimm Hrwtar, Fimm Kiarnhafrar, Fimm Lomb aars gomul. Og þetta er nu Goafa AhiEsers, Sonar AmmiSadai.

72. Þann Ellefta Dag offrade Pagiel, Son Ochrans, Hofdingenn fyrer Bornum Assers.

73. Hans Goafa var eirn Silfurdiskur Hundrad og þriatiju Siklos verdur, ein Silfur Skoal Siotijge Siklos verd., epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo, til Matoffurs.

74. Ein Gullskeid tiju Siklos Gulls verd, full af Reykelse.

75. Einn Uxe af Nautunum, eirn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brenneoffurs,

76. Eirn Geithafur til Synda-Offurs.

77. Og Tveir Uxar til Packar-Offurs, Fimm Hrwtar, Fimm Kiarnhafrar, Fimm Lomb aars gomul. Og þetta er nu Goafa Pagiels Sonar Ochrans.

78. Þann Tolfta Dag offrade Ahira Son Enan, Hofdinge fyrer Bornum Naphthali.

79. Hans Goafa var einn Silfurdiskur Hundrad og þriatiju Siklos verdur, ein Silfur-skoal siotijge Siklos verd, epter Helgedomsins Sikle, hvortveggia fullt Hveitemiols, blandad med Oleo til eins Matoffurs.

80. Ein Gullskeid tiju Siklos Gulls verd, full af Reykelse.

81. Eirn Uxe af Nautunum, eirn Hrwtur, eitt aars gamallt Lamb til Brenne-Offurs,

82. Eirn Geithafur til Syndaoffurs.

83. Og tveir Uxar til Packoffurs, fimm Hrwtar, fimm Kiarnhafrar, fimm Lomb aars gomul. Og þetta er Goafa Ahira Sonar Enans.

84. Þetta er Alltaresins Vijgsla, þann tijma þa þad var vijgt, Til hvors ad Israels Hofdingiar offrudu þessa tolf Silfurdiska, tolf Silfurskoaler, tolf Gullskeider.

85. So ad hvor Diskur vog Hundrad og þriatijge Siklos Silfurs, og hvor ein Skoal siotiju Siklos. So ad Summann alls Silfursins af þessum Kierum var Tvo Þusund, og fiogur Hundrud Siklar, epter Helgedomsins Sikle.

86. Og þær tolf Gullskeider fullar af Reykelse, og hiellt sierhvor tiju Siklos, epter Helgedomsins Sikle, so ad Summann Gullsins j Skeidunum var Hundrad og tuttugu Sikli.

87. Talann a Uxunum til Brenneoffursins var tolf Uxar, tolf Hrwtar, tolf Lomb aars gomul med þeirra Matoffre, og tolf Geithafrar til Syndaoffurs.

88. Og Summann a Uxunum til Packoffursins voru fiorer og tuttugu Uxar, sextiu Hrwtar, sextiu Kiarnhafrar, sextiu Lomb aars gomul, Þetta var Alltaresins Vijgsla, þa þad var vijgdt.

89. Og þa Moses gieck jnn j Samkundu-Tialldbwdena, ad vid hann yrde talad, þa heyrde hann Roddina tala vid sig, af Naadarstolnum, sem var ofann a Vitnisburdarins Ork, j millum þeirra tveggia Cherubim, þadann var talad vid hann.

VIII. Ca-

## VIII. Capitule.

Vijgsla Levitanna.

Og DRottinn talade vid Mosen og sagde,

2. Tala þu vid Aaron, og seigdu til hans, þa þu setur Lampana upp, þa skalltu so setia þa, ad þeir lyse aller Sio til lijka (a) framan til oa Liosastikunne.

(a) (Framanverdt) þad er, Liosenn j Lempunum skulu vera þeim meigenn sem horfer innar ad Fortiall denu, so biart være mille Liosastiakans og Fortialldsins.

3. Og Aaron giorde so, og sette Lampana ad lysa framanverdt fyrer Liosastikunne, sem DRottinn hafde bijfalad Mose.

4. Liosastikann var af þiettu Gulle, bæde Stiakenn sialfur, og Blomsturenn, epter þeirre Lijking, sem DRottinn hafde syndt Mose, so giorde hann Liosastikuna.

5. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

6. Tak þu Levitana burt fra Israelis Bornum, og hreinsa þa.

7. Enn so skalltu fara ad hreinsa þa, þu skallt stockva (b) Synda Vatnenu a þa, og þeir skulu raka olldungis sitt Hoar af, og þvo sijn Klæde, so eru þeir hreiner.

(b) (Synda Vatn) Vijgt Vatn, sem stockt var yfer þa sem afleyster voru.

8. Þa skulu þeir taka eirn ungann Uxa, og hans Mat-Offur, Hveitemiol blandad med Oleo. Og þu skallt taka eirn annann ungann Uxa til Synda-Offurs.

9. Og þu skallt leida Levitana fyrer Samkundu-Tialldbwdena, og samansafna ollum Almwganum Israels Barna,

10. Og leida Levitana fyrer DRottinn. Og Israels Born skulu leggia sijnar Hendur yfer Levitana.

11. Og Aaron skal veyfa Levitunum af Israels Bornum til Veyfunar-Offurs fyrer DRottni, so þeir meige þiona j Embættenu fyrer DRottni.

12. Pa skulu Levitarner leggia sijnar Hendur uppa Uxanna Hofud, og sa eine skal gioraft til Synda-Offurs, enn annar til Brennefoornar fyrer DRottni, til eirnrar Forlijkunar fyrer Levitana.

13. Og þu skallt skicka Levitana framm fyrer Aaron og hans Syne, og veyfa þeim til Veyfunar-Offurs fyrer DROTTni,

14. Og skilia þa so fra Israelis Bornum, ad þeir sieu mijner.

15. Þvi nærst skulu þeir ganga jnn, og þiona j Samkundu-Tialldbwdenne. So skalltu hreinsa þa og veyfa þeim,

16. Þvi þeir eru mier giefner af Israels Bornum, og eg hefe þa til mijn tekid, fyrer allt þad sem opnar sinnar Modur-Kvid, sem er fyrer þa Frumgietnu af ollum Israels Bornum.

17. Þvi * aller Frumburder a medal Israels Barna heyra mier til, bæde af Monnum og Fienade, sijdann þann Tiid eg sloo jhel alla Frumburde a Egyptalande, og helgade þa mier, * Luc: 2, 23.

18. Og tok Levitana til mijn, fyrer alla Frumburde a medal Israels Barna,

19. Og eg gaf Aarone og hans Sonum þa af Israels Bornum, til eins Skeinks, so þeir skylldu þiona j Israels Barna Embætte, j Samkundu-Tialldbwdenne, til ad giora Forlijkun fyrer Israels Born, so ad þar sie eingenn Ploaga a medal Israelis Barna, ef þeir vilia koma nær Helgedomenum.

20. Og Moses med Aarone, asamt ollum Almwga af Israels Bornum, breittu j ollum Hlutum vid Levitana, so sem DROTTinn hafde boded Mose.

21. Og Levitarner hreinsudu sig, og þvodu sijn Klæde, og Aaron veyfade þeim fyrer DROTTni, og forlijkte þa, so þeir urdu hreiner.

22. Og epter þad geingu þeir jnn, ad fremia sitt Embætte j Samkundu-Tialldbwdenne, fyrer Aarone og hans Sonum, so

so sem DROTTinn hafde biifalad Mose yfer Levitunum, so giordu þeir vid þa.

23. Og DROTtinn talade vid Mosen, og sagde,

24. Petta er þad sem Levitunum ber ad giora, fra þvi þeir eru Fimm og Tuttugu aara, og þadann af eru þeir duganleger ad draga j Strijd, og þiona j Samkundu-Tialldbuodenne.

25. Enn fra Fimmtugasta aare skulu þeir vera Frialser fra sijns Embættis Pionustu, og skulu ecke framar þiona,

26. Helldur taka vara a þeirra Brædra Pionustu, j Samkundu-Tialldbuodenne, enn þeir skulu ecke annast Embættid. So skalltu breita vid Levitana, so hvor vakte sitt Vardhalld.

# IX. Capitule.

(I) Paaskar eru halldner; (II) Israels Børn ferdast, og taka Hvijld epter Skijenu.

I. Og DROTTinn talade vid Mosen j Eydemorku Sinai, a odru Aare epter þad þeir voru ut farner af Egyptalande, a þeim Firsta Maanade, og sagde,

2. Laat Israels Born hallda Paaska a sijnum Tijma,

3. Pann Fiortanda Dag j þessum Maanade, mot Aptne, skulu þeir þa hallda a sijnum Tijma, epter allre sinne Skickan og Riette,

4. Og Moses talade vid Israels Born ad þau skylldu hallda Paaska.

5. Og þeir hielldu Paaska þann Fiortanda Dag, j þeim Firsta Maanade, moote Kvollde, j Eydemorku Sinai, og Israels Born giordu allt þad sem DROTTinn hafde boded Mose.

6. Pa voru þar nockrer Menn sem saurgast hofdu af Framlidnum Manne, so þeir gatu ecke hallded Paaskana, a þeim Deige, þeir geingu fyrer Mosen, og Aaron, þann sama Dag,

7. Og sogdu, vier erum ohreiner af Framlidnum Manne, þvi skulum vier þar fyrer vera minne Hoattar, ad vier meigum eige bera vorar Goafur inn fyrer DROTtinn, a sijnum Tijma, a medal Israels Barna?

8. Enn Moses sagde til þeirra, hafed Bidlund, eg vil heyra hvad DROTTinn bydur ydur.

9 Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde, Tala þu til Israels Barna, og seigdu,

10. Pegar ad nockur saurgast af einum Framlidnum, eda er j Fiarska vid ydur a sijnne Reisu, eda a medal ydar Ettmanna, sa same skal lijka vel hallda DROTTni Paaska.

11. Enn þo a þann Fiortanda Dag j þeim odrum Maanade, a moote Kvollde, og skal eta þad med Osyrdu Brande og Sallte,

12. Og laata þar ecke neitt af leyfast til annars Morguns, og * eckert Bein skulu þeir briota j þvi, og þeir skulu hallda þad j allann maata so sem Menn plaga Paaska ad hallda. * Joh. 19, 36

13. Enn hvor hann er hreinn, og er ei a sinne Reisu, og yfergaf ad hallda Paaskana, hans Saal skal afmaast fra hans Folke, sokum þess, ad hann hefur ecke fært Drottni sijna Goafu, a sijnum akvedna Tijma, hann skal bera sijna Synd.

14. Og þa þar byr nockur Framande hia ydur, hann skal og hallda DROTTni Paaska, og hann skal hallda þa epter Paaskana Skickan og Riette. Pesse Skickan skal vera eins fyrer ydur alla, so þann Framanda, so sem þann Odalborna j Landenu.

II. 15. Og a þeim Deige sem Tialldbuodenn var uppreist, þa hulde eitt Skij yfer Tialldbuodena Vitnisburdarins, og þar var ad sia yfer Tialldbuodenne, fra Kvollde, og til Morguns, þvi lijkast sem eirn Elldur.

16. So skiede alljafnt, ad Skijed hulde hana, og um Nætur var þad ad sia sem einn Elldur.

17. Og epter þad ad Skijed tok sig upp fra Tialldbuodenne, þa ferduduſt Israels Born sijna Leid, Og hvar sem Skijed stadnæmdest, þar settu Israels Born sijnar Tialldbuoder.

18. Israels Born ferduduſt epter Orde DROTTINS, og epter hans Orde logdu þeir sig. Og * so leinge sem Skijed var yfer Tialldbuodenne, so leinge loau þeir kirrer,

* 1 Cor. 10, 1.

19. Og þa Skijed dvaldist marga Daga yfer Tialldbuodenne, þa giættu Israels Born Vardhallds DRottins, og ferduduſt hvorge.

20. Og þegar so bar ad, ad Skijed var nockra Daga samfleytt yfer Tialldbuodenne, þa settu þeir sijnar Herbuoder epter Orde DROTTins, og so ferduduſt þeir oaleidis epter Orde DROTTins.

21. Þa Skijed var þar fra Kvollde og til Morguns, og tok sig þa upp, þa ferduduſt þeir framveiges, eda þa þad tok sig upp um Daga, eda um Nætur, þa ferduduſt þeir aframm.

22. Enn þa þad var Tvo Daga, eda eirn Moanud, eda nockud leinge yfer Tialldbuodenne, þa loau og Israels Born kirr, og ferduduſt hvorge, og þa þad tok sig þa upp, þa ferduduſt þeir.

23. Þvi epter DROTTINS Munne loau þeir, og epter DROTTins Munne ferduduſt þeir, so ad þeir toku vara a DRottins Vardhallde, epter Ordum DROTTins fyrer Mosen.

## X. Capitule.

(I) Brukun Tveggia Silfur-Ludra. (II) Israels Born ferdast fra Sinai Fialle.

I. 1. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Gior þier Tvo Luodra af þiettu Silfre, so þu meiger hafa þa þar til, ad kalla Allmuogann samann, og þegar ydar Her skal Herbuodum svipta.

3. Þegar bloased er j þa boada ad eins einfalldlega, þa skal allur Almuogenn samansafnast til þijn, utan fyrer Samkundu-Tialldbudardyrunum.

4. Og þa bloased er ad eins j annann einfalldlega, þa skulu Hofdingiarner safnast til þijn, og þeir enu Ypperstu yfer Þusund j Israel.

5. Enn þegar oakafflega er bloased j Ludrana, þa skal sa Flockur Herbudum svipta sem er j Austre.

6. Og þegar oakaflega er Trametad j annann tijma, þa skal sa Flockur Tiolldum svipta, sem liggur j mot Sudre, þvi þa þeir skulu ferdast, þa skulud þier Trameta.

7. Enn þa Almuogenn skal samann koma, þa skulud þier einfalldlega bloasa, og ecke trameta.

8. Og Prestarner, Aarons Syner skulu bloasa j Ludrana, Og þad skal vera ein æfinleg skickan, hioa ydrum Epterkomendum.

9. Þa þier fared j Strijd j ydar Lande, j moote ydrum Ovinum, sem heria oa ydur, þa skulud þier bloasa j Trametinn, so ydar meige minnst verda fyrer DRottni ydrum Gude, og ad þier verded frelster fra ydrum Ovinum.

10. Somuleidis, þa þier hafed fagnad a ydar Hoatijdum, og a ydrum Nyum Moanudum, þa skulud þier bloasa j Trameturnar, yfer ydar Brennefornum, og Packaroffrum, ad þad meige verda ydur til eirnrar Minningar fyrer ydrum Gude, Eg er DRottinn ydar Gud.

II. 11. A þeim Tuttugasta Deige j þeim odrum Moanade, og a þvi odru Aare, took Skijed sig upp fra Vitnisburdar Tialldbuodenne.

12. Og Israels Born tooku sig upp, og drogu af Eidemorku Sinai, og Skijed nam stadar j þeirre Eydemorku Paran.

13. Enn þesser sviptu first Herbudum epter Ordum DRottins fyrer Mosen, sem er,

14. First foor Merke Herbudanna Juda Barna, med þeirra Her, og Hofdinge fyrer þeirra Her var Nahesson, Son Amminadab.

15. Og Nethaneel Son Zuar var Hofdinge yfer Her Isaschars Barna Ættar.

16. Og Eliab Son Helon, var Hofdinge yfer Her Sebulons Barna Ættar.

17. Þar med og so toku Menn Tialldbudena nidur, Og Born Gersons og Merari gengu framm, og baaru Tialldbudena.

18. Þvi nærst for Merke Herbuda Ruben med þeirra Her, og Elizur Son Sedeur var Hofuds Madur yfer þeirra Her.

19. Selumiel Son ZuriSadai, var Hofdinge fyrer Her Simeonis Barna Ættar.

20. Og Eliasaph Son Deguels, var Hofdinge yfer Her Gads Barna Ættar.

21. Þa foru og so þeir Kahathitar framm, og baaru Helgedomenn, og hiner adrer reistu Tialldbudina upp, þar til ad þesser komu epter þeim.

22. Þar nærst for Merke Ephraims Barna Herbuda, med þeirra Her, og Elisama, Son Ammihud, var yfer þeirra Her.

23. Og Gamliel, Son Pedazur, Hofuds Madur fyrer Her Manasse Barna Ættar,

24. Og Abidan, Son Gideoni, var Hofuds Madur fyrer Her BenJamins Barna Ættar.

25. Hier nærst for Merke Dans Barna Herbuda, med þeirra Her, þad voru þær seinustu Herbuder. Og AhiEser, Son AmmiSadai, var Hofuds Madur yfer þeirra Her.

26. Og Pagiel, Son Ochrans, var Hofuds Madur yfer Her Assers Barna Ættar.

27. Og Ahira, Son Enans var Hofuds Madur fyrer Her Nephthali Barna Ættar.

28. So ferduduſt Jsraels Born framm med ſinn Her.

29. Og Moses ſagde til ſijns Maags Hobab, ſonar Reguels af Midian, Vier forum til þeſs ſtadar, um hvorn DRottinn hefur ſagt, Eg vil giefa ydur hann, Þvi far nu med oſs, þa vilium vier giora vel til þijn, þviad DRottinn hefur loſad Jſrael godu. Enn hann ſvarade,

30. Eige vil eg fara med ydur, Helldur mun eg fara til mijns Lands, og til minna Ættmanna.

31. Hann ſagde, Eg bid þu yfergiefer oſs ecke, þvi þu veitſt hvar vier ſkulum ſetia vorar Herbuder j Eydemorkenne, og þu ſkallt vera vor (a) Augu.

(a) Leidtogare.

32. Og ef þu fer med oſs, þa vilium vier giora vel til þijn, af þvi gooda ſem DRottinn giefur oſs.

33. So ferduduſt þeir fra Fialle DRottins, þriggia Daga Leid, og Saattmaals Ørk DRottins foor fyrer þeim, þa ſomu þriggia Daga Leid, til ad vijſa þeim hvar þeir ſkylldu hvijla.

34. Og Skij DRottins var yfer þeim um Daga, þa þeir foru af Herbudunum.

35. Og þa Ørkenn for af ſtad, þa ſagde Moses, Rijs upp þu DRottinn, Laat þijna Ovine tvijſtraſt, Og alla flya fyrer þier, ſem þig hata!

36. Og þa þeir hvijlduſt, þa ſagde hann, Kom aptur þu DRottinn til Fioldans Puſundanna Jſrael!

## XI. Capitule.

(I) Ellds Uppkoma vegna Oþolenmæde. (II) Gyrndar grafer.

I. Og þa Lijdurenn vard oþoleinmodur, fiell þad jlla fyrer Eyrum DRottins, Og þegar DRottinn heyrde þad, vard hann oakafliga reidur, og Eilldur DRottins uppkviknade a medal þeirra, og uppbrennde þad ſem yſt var j Herbudonum.

2. Þa kallade Folked til Moſen, Og Moſes bad til DRottins, og ſo hvarf Eilldurenn.

3. Og Menn kolludu þann ſtad Tabeera, ſokum þeſs, ad Elldur DRottins uppkveikteſt a medal þeirra.

II. 4. Þvi Almuga Folked a medal þeirra þad fieck Lyſting, og ſat, og griet aſamt med Jſraels Bornum, og ſogdu, Hvor vill giefa oſs Kiot ad eta?

5. Vier endurminnunſt þeirra Fiſka ſem vier aatum fyrer eckert j Egyptalande, og Cucumeres, og Pepones, Lauk, og Raudalauk, og Hvijtalauk,

6. Enn nu eru Ander vorar þreyttar, þvi vor Augu sioa eckert annad utann þetta Man.

7. Enn Man var lijka sem Coriander=Fræ, og þvi lijkast ad sioa sem Bedellion.

8. Og Folked for hingad og þangad, og tijndu þad upp, og Moludu þad under Kvorn, og steyttu þad j Mortele, og sudu þad j Pottum, og giordu þar af Kokur a Oskunne, og þær smöckudu so sem Oleu Kokur.

9. Og þegar Doggenn fiell yfer Herbudernar a Nottunne, þa fiell og Man þar nidur a med.

10. Þa Moses heyrde nu ad Folked griet, medal sinnar Ættar, hvor j sijnum Tiallddyrum, þa gramdist Reide DRottins miog þunglega, og Moses vard og hriggur.

11 Þa sagde Moses til DROttins, Hvar fyrer hreller þu þinn Þienara, og þvi finn eg ecke Naad fyrer þijnum Augum, ad þu leggur uppa mig Byrde alls þessa Folks?

12. Hef eg gieted allt þetta Folk? Hef eg fæddt þad? So þu meiger seigia til mijn, Ber þa j þijnum Fadme (lijka sem ein Fostra ber eitt Barn) jnn j þad Land sem þu hefur lofad þeirra Fedrum?

13. Hvar skal eg taka Kiot ad giefa ollu þessu Folke? Þad æper fyrer mier, og seiger, gief oss Kiot ad eta.

14. Eg einsamall giet ecke bored allt þetta Folk, þvi þad er mier ofþungt,

15. Og villtu so giora vid mig, þa lijflaat mig helldur, hafe eg annars funded Naad fyrer þijnum Augum, ad eg sioae ecke so mijna Olucku.

16. Og DRROTTinn sagde til Mosen, Samansafna mier Siotiju Monnum af Olldungum Israels, sem þu veitst ad þeir sieu elldster a medal Folksins, og þeirra Forstiorar eru, og leid þa fyrer Samkundunnar Tialldbuud, og skicka þa þar framm fyrer þig.

17. So vil eg koma ofann, og tala þar vid þig, og taka af þeim Anda sem er med þier, og leggia a þa, so ad þeir bere Folksins Þunga med þier, so þu skuler ecke eirn bera hann.

18. Og þu skallt seigia til Folksins, Helged ydur til Morguns, ad þier eted Kiot, þvi ydar Grꝏatur er komenn fyrer Eyru DROTtins, þier sem seiged, Hvor giefur oss Kiot ad eta? Þvi þad gieck oss vel j Egyptalande. Þar fyrer mun DROTTinn giefa ydur Kiot, ad þier eted,

19. Ecke eirn Dag, ecke Tvo, ecke Fimm, ecke Tiju, ecke Tuttugu Daga um kring,

20. Helldur eirn Moanud, þangad til þad geingur wt um ydar Naser, so ydur velge vid þvi, fyrer þvi þier hafed j burt kastad Drottni, sem a medal ydar er, og hafed grꝏated fyrer honum, og sagt, Hvar fyrer erum vier wtgeingner af Egyptalande?

21. Og Moses sagde, Þetta Folk er Sex Hundrud Þusund Fotgongu Lids, medal hvorra eg em, og þu seiger, Eg vil giefa ydur Kiot ad eta eirn Moanud j gegnum.

22. Skal nockud sloa nidur Naut og Saude, so ad þeim meige nægiast? Eda skulu aller Fiskar Sioarins safnast hingad, ad þad kunne ad nægia handa þeim?

23 DROTTinn sagde til Mosen, Er þa Hond DROTTins stutt ordenn? Nu, þu skallt sioa hvort mitt Ord kann ad koma fram vid þig, edur ei.

24. Og Moses gieck wt, og sagde Ord DROTTins fyrer Folkenu, og hann heimte samann þa Siotiju Menn af Olldungum Folksins, og liet þa standa kringum Tialldbuudena.

25. Þa kom DROTTinn nidur j Skijenu, og talade vid hann. Og hann tok af þeim Anda sem var med honum, og lagde hann yfer þa Siotiju Olldunga. Og þegar Andenn hvijldest yfer þeim þa spꝏadu þeir, og lietu ecke af.

26. Enn þar urdu enn þa Tveir Menn epter j Herbuudunum, eirn hiet Eldad, enn annar Medad, og Andenn hvijldest yfer þeim, þvi þeir voru og so uppskrifader, enn voru þo ecke wtgeingner til Tialldbuudarennar, og þeir spꝏadu j Herbuudunum,

27 Þa hliop eitt Ungmenne burt, og underviji=

dervijſade þad Moſe, og ſagde, Eldad og Medad ſpaa j Herbuudunum.

28. Þa ſvarade Joſua Son Nun, Moſes Þienare, ſem hann hafde utvaled, og ſagde, Moſes minn Herra, Fyrerbiod þu þeim þad.

29. Enn Moſes ſagde til hans, Vandlæter þu minna Vegna? Giæfe GUd, ad allt Folk DROTTins kynne ad ſpaa, og ad Drottinn vilde giefa ſinn Anda yfer þa!

30. So ſafnadeſt Moſes, og þeir Ellſtu af Iſrael, til Herbudanna.

31. Þa gieck ut Vindur fra DRottni, og liet Vacktelur koma af Sionum, og dreifde þeim yfer Herbudernar, umhverfis, hier eirnrar Dagleidar Leingd, og þar eirnrar Dagleidar leingd, tveggia alna hæatt yfer Jordenne.

32. Þa ſtood Foolked upp, og ſafnade Vakteler, allann þann ſama Dag, og alla þa Nott, og allann annann Dagenn, og ſa ſem minnſt ſafnade, hann fieck tiju Homor, og þeir feſtu þa upp, kringum allar Herbudernar.

33. Þa Kioted var enn nu j millum þeirra Tanna, og aadur enn þvi var loked, þa gramdeſt Reide DRottins a medal Folkſins, og ſlo þad med eirnre miog ſtorre Plaagu.

34. Þar af kalladeſt ſa ſtadur Gyrndar Grafer, Sokum þeſs, ad þad Gyrndarſama Folk var jardad j þeim ſama ſtad.

35. Folked for fra Gyrndar grøfunum til Hazeroth, og voru j Hazeroth.

## XII. Capitule.

Maria verdur Lijkþraa.

Og Maria og Aaron aatøldu Moſen, fyrer hans Kvinnu ſkulld, ſem var af Mor-Lande, þar fyrer, hann hafde teked eina Morlendſka Konu ſier til Eigenkvinnu,

2. Og ſøgdu, Talar þa DRottinn alleinaſta fyrer Moſen? Talar hann ecke og ſo fyrer oſs? Og DRottinn heyrde þad.

3. Enn Moſes var eirn miog (a) plaagadur Madur framar enn aller Menn a Jordunne.

(a) (Motgangs Madur) ſem margt Hlaut ad lijda. Pſalm. 132. Minnſtu DRottenn Davids, og alls hans Mootgangs.

4. Og DRottinn ſagde haſtarlega til Moſen, til Aarons, og til Mariam, Fared ut, þier þriu ſamann, til Samkundu-Tiallds-budarennar, og þau øll þriu geingu ut þangad.

5. Þa kom DRottinn nidur j Skijſtolpanum, og ſtod j Tialldbudardyrunum, og kallade a Aaron og Mariam, Og þau geingu bæde þar ut.

6. Og hann ſagde, Heyr mijn Ord, Er þar nockur Spaamadur DRottins af ydur? Þeim vil eg opennbera mig j eirnre Syn, eda eg vil tala vid hann j einum Draume.

7. Enn ecke ſo minn Þienare * Moſes, ſem er Trulyndur j øllu mijnu Huuſe, *Ebr. 3, 2.

8. Eg tala munnlega vid hann, og hann ſier DRottinn j ſinne Mind, ecke j mirkvum Ordum, edur Lijkingum. Þvi ottuduſt þid þa ecke ad mæla j mote mijnum Þienara Moſe?

9. Og Reide DRottins gramdeſt þeim, og hann for j burt,

10. Þar med hvarf og Skijed j burt fra Tialldbudenne Og ſiaa, Maria vard Spitelſk, lijka ſem Snior (b). Og Aaron leit til Mariam, og vard þar vid, ad hun var ordenn Lijkþraa,

(b) Hvijt ſem Snior af Lijkþraa.

11. Og hann ſagde til Moſen, Minn Herra, Laat ecke þeſſa Synd blijfa a ockur, med hvorre vid høfum daarlega giort og ſyndgaſt,

12. Ad þeſſe ſie ecke ſo ſem ſa er Daudur kiemur af ſinnar Modur Lijfe, þad hefur alla reidu upp eted halft hennar Holld.

13. Þa kallade Moſes til DRottins, og ſagde, Æ Gud, Heilbrigda þu hana!

14. DRottinn ſagde vid Moſen, Ef Fader hennar hefde hrækt j hennar Andlit, ſkyllde hun þa ecke ſkammaſt ſijn j ſio Daga?

15. Laat hana vera utelukta j ſio Daga, utann Herbudanna, Epter þad maa hun takaſt aptur. So var Maria utelukt af Herbudunum

unum j Sio Daga. Og Folked ferdadest ecke leingra oa=framm, fyrr enn Maria var medtekenn aptur.

XIII. Cap 1. Epter þad ferdadest Folked fra Hazeroth, og sette Herbuder sijnar j þeirre Eydemorku Paran.

# XIII. Capitule.

Nockrer Menn verda sender ut til ad niosnast um Canaans Land.

2. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

3. Send þu Menn ut ad skoda Landed Canaan, hvort eg vil giefa Israels Bornum, af sierhvorre Kinkvijsl einn ypparlegann Mann.

4. So sende Moses þa af þeirre Eydemorku Paran, epter Orde DRottins, þeir ed aller voru Hofdingiar fyrer Israels Bornum.

5. Og þesse eru þeirra Nofn. Sammua, Son Za‥ur, af Ætt Ruben.

6. Saphat, son Hori, af Ætt Simeon.

7. Caleb, son Jephunne, af Ætt Juda.

8. ‥geal, son Josephs, af Ætt Isaschar.

9. Hosea, son Nun, af Ætt Ephraim.

10. Palti, son Raphu, af Ætt Ben Jamin.

11. Gadiel, son Sodi, af Ætt Sebulon.

12 Gaddi, son Susi, af Ætt Josephs, af Manasse.

13. Ammiel, son Gemalli, af Ætt Dan.

14 ‥ethur, son Michael af Ætt Asser.

15. Nahebi, son Vaphsi, af Ætt Nephthali.

16. Guel, son Machi, af Ætt Gads.

17. Þesse eru Nofn þeirra Manna sem Moses utsende ad skoda Landed, Enn Moses kallade Hosea Nun son Josua.

18. Sem Moses sende þa nu ut, til ad skoda Canaans Land, sagde hann til þeirra, Reised upp j mot Sudre, og ganged a Fiallenu uppe,

19. Og gaumgiæfed Landed, hvornenn þad er, og þad Folk sem þar j byr, hvort þad er sterkt edur veikt, foatt eda margt.

20. Og hvad þad er fyrer eitt Land sem þeir byggia, hvort þad er gott, eda Vondt, og hvad fyrer Borger þad eru, sem þeir bwa ut j, hvort þeir bwa j Tialldbudum eda fostum Stodum.

21. Og hvad þad er fyrer Land, hvort þad er feitt eda Magurt, og hvort þar eru Trie inne, edur ecke, Vered hughrauster, og taked af Avexte Landsins. Og þetta var a þeim tijma sem Vijnberiagurnar voru first fullvaxnar.

22. Þeir fooru af stad upp epter, og niosnudu um Landed, fra Eydemorku Zin, og allt til Rehob, þa fared er til Hamath,

23. Þeir geingu og upp j moot Sudre, og komu til Hebron, þar voru þeir Ahiman, Sesai og Thalmai, Enaks Born. Enn Hebron var biggd sio Arum fyrr enn Zoan j Egyptalande.

24. Og þeir komu til þess Lækiar sem kalladest Escol, og skoaru þar upp eirn Vijnkvist med Vijnberia Klasa, og lietu tvo Menn bera hann oa eirnre Staung, þar til og so Granata Eple og Fijkiur.

25. Sa stadur kallast (a) Escols Lækur, sokum þess Vijnberia Klasa sem Israels Born skoaru þar af.

(a) Escol heiter Vijnber, þar af kiemur Vijnberia Lækur.

26. Og þeir snern sier aptur, þa þeir hofdu rannsakad Landed epter fiorutijger Daga,

27. Geingu þadann, og komu til Mosen, og Aaron, og alls Almwgans Israels Barna, j Eydemorku Paran, giegnt Kades, og sogdu þeim, og ollum Almwganum, hvornenn til stæde, Og þeir lietu þa sioa Landsins Avoxtu.

28 Og kunngiordu þeim froa, og sogdu, Vier komum j Landed þad þier sendud oss til, j hvoriu ad flytur Miolk og Hunoang, og þetta er Avoxturenn þadann,

29. Utann þad, ad þar byr sterkt Folk, og þar eru miog storar og sterkar Borger, og

og vier sᴂum þar og so Enaks Born j Landenu.

30. Og Amalechitar bwa sunnann j Landenu, Enn Hethitar, Jebusitar og Amoritar bwa a Fiollunum, Cananitar bwa ut med Sionum, og hia Jordan.

31. Enn Caleb stodvade Folked fyrer Mose, og sagde, Lᴂtum oss fara upp þangad, ad jnntaka Landed, þviad vier sᴂum þad vel med Magt unned.

32. Enn þeir Menn, sem upp þangad hofdu fared med honum, sogdu, Eige kunnum vier ad fara upp þangad, j moote þvi Folke, þvi þad er sterkara enn vier.

33. Og þeir hallmᴂlltu Landenu, fyrer Israels Bornum, sem þad hofdu skodad, og sogdu, Þad Land sem vier geingum ad skoda, upp etur sijna Innbyggiara, og allur sa Lydur sem vier sᴂum þar jnne er hardla hᴂvaxed Folk,

34. Vier sᴂum þar og Risa, Enaks Born af Risa Ættum, og vier syndustum fyrer vorum Augum lijka sem Grashoppur, og so syndust vier lijka fyrer þeirra Augum.

## XIV. Capitule.

Straff med Mannfelle, fyrer saker Moglunar.

Þa hoof allur Almwgenn upp ad kalla, og Folked griet um alla þa nott.

2. Og * oll Israels Born mogludu moot Mose og Aaron, og allur Almwgenn sagde til þeirra, Gud giæfe þad vier hefdum dᴂed j Egyptalande, eda dæum vier enn nu hier j þessare Eydemorku, *1Cor.10,10. Ebr.3,8.

3. Þvi leider DRottinn oss j þad Land, so ad vorar Konur falle fyrer Sverde, og vor Born verde ad Herfange? Er ecke betra vier forum aptur jnn j Egyptaland?

4. Og hvor sagde til annars, Sᴂum oss eirn Hofdingia, og forum j Egyptaland aptur.

5. Enn Moses og Aaron fiellu framm a sijnar Asianer fyrer ollum Almwgans Sofnude, af Israels Bornum.

6. Og Josua son Nuns, og Caleb, son Jephunne, sem og so hofdu skodad Landed, rifu sijn Klæde,

7. Og sogdu til alls Almwgans Israels Barna, Þad Land, sem vier j giegnum foorum ad skoda, er hardla gott.

8. Sie DRottinn oss nᴂdugur, þa leider hann oss vel jnn j þad sama Land, og giefur oss þad, þad er þad Land sem Miolk og Hunᴂng j flytur.

9. Falled ecke fra DRottni, og hræded ecke Lyd þess Lands, Þvi vier vilium eta þa upp, lijka sem Braud, Allt þeirra Fullting er fra þeim horfed, Enn DRottinn er med oss, hræded þa ecke.

10. Þa sagde allt Folked, ad Menn skylldu beria þa Griote. Þa opennberadest Dyrd DRottins j Samkundu-Tialldbwdenne, fyrer ollum Israelis Bornum.

11. Og DRottinn sagde til Mosen, Hvorsu leinge skal þetta Folk smᴂna mig? Og hvorsu leinge vilia þeir ecke trua mier, fyrer allra handa Teikn, sem eg hefe giort a medal þeirra?

12. Eg vil liosta þa med Drepsott, og afmᴂa þa, og giora þig ad meire og stirkvare Þiod en þesse er.

13. Þa sagde Moses til DRottins, Þad spyria Egyptsker Menn, þvi þu hefur fært þetta Folk midt ut fra þeim, med þijnum Krapte,

14. Og þeir munu seigia til þessa Lands Innbyggiara, sem hafa heyrt, ad þu DRottinn ert a medal þessa Folks, og opennberliga audsyner þig, og þitt Skij stendur yfer þeim, og þu DRottinn geingur fyrer þeim um Daga j Skijstolpa, enn um Nætur j Elldstolpa,

15. Og ef þu slær nu þetta Folk jhel lijka sem eirn Mann, þa munu Heidingiar, þeir sem soddann Rickte um þig heyra, mæla og seigia,

16. DRottinn gat j ongvann mᴂta leidt

þetta

þetta Folk j þad Land, sem hann hafde svared þvi, og þvi hefur hann slatrad þvi j Eydemorku.
17. So laat nu Krapt DROTtins mikilast, so sem þu hefur talad, og sagt,
18. DROTTinn er þolennmodur og miøg miskunsamur, og fyrergiefur Synder og Misgiorder, og lætur ongvann ohegndann, helldur vitiar hann Fedranna Misgiørninga yfer Bornunum, j Pridia og Fiorda Lid.
19. So vertu nu lijknsamur Misgiorningum þessa Folks, epter þinne mikelle Miskunseme, so sem þu hefur og fyrergiefed þessu Folke, sijdann þu leidder þad wt af Egyptalande, allt til þessa.
20. Og DROTTinn svarade, Eg hefe fyrergiefed þad, epter þvi sem þu mællter.
21. Enn so sannarlega sem eg life, skal oll Verolldenn uppfyllast af Dyrd DROTtins.
22. Þviad aller þeir Menn sem sied hafa mijna Dyrd, og mijnar Jarteikner, sem Eg giorde j Egyptalande, og j Eydemorkenne, og hafa nu freistad mijn Tijusinnum, og ecke hlydt minne Rodd,
23. Eingenn þeirra skal sioa þetta Land sem Eg soor þeirra Fedrum, og eingenn af þeim skal sioa ad sioa þad, sem mig hafa lastad.
24. Enn minn Þienara Caleb vil Eg jnnleida j þad Land, sem hann var fyrre j, þviad annar Ande er med honum, og hann hefur trulega epterfilgt mier, og hans Sæde skal eignast þad.
25. Þar til Amalechitana, og Cananitana sem bwa j Dalnum, Snued um a Morgun, og fared j Eydemorkena, a þann Veg sem liggur til Rauda Hafs.
26. Og DROTTinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,
27. Hvorsu leinge vill þesse hinn jlle Almwge mogla j moote mier? Þvi heyrt hef Eg þad Mogl sem Israels Born hafa moglad a moote mier.
28. Þar fyrer seig þu til þeirra, So Sannarlega sem Eg life, seiger DROTTinn, Eg skal giora vid ydur, so sem þier hafed sagt, fyrer mijnum Eyrum,
29. Ydar Lijkamer skulu falla j þessare Eydemorku, og aller þier sem talder erud Tvijtuger, og þadann af elldre, þier sem moglad hafed j moote mier,
30. Þier skulud ecke koma j þad Land sem Eg hefe upplypt minne Hende yfer, ad Eg villde laata ydur bwa þar, utann Caleb, Son Jephunne, og Josua, Son Nun.
31. Ydar Born, um hvor þier sogdud, ad þau mundu verda ad Herfange, þa vil Eg leida þangad jnn, ad þeir kanne þad Land hvort þier forsmaadud,
32. Enn þier og ydar Lijkamer skulu falla j þessare Audn.
33. Og ydar Born skulu vera Hirdarar j þessare Eydemorku j Fiorutiju aar, og bera ydarn Saurlifnad, þar til ad ydar Lijkamer eru foreydder j Eydemorkenne.
34. Epter tolu þeirra Fiorutijge Daga a hvorium þier rannsokudud Landed, Joa, hvor Dagur skal gillda aar, so ad þier skulud bera ydra Misgiorninga j Fiorutijge aar, so þier vited hvad þad er, þa eg tek af Hondina.
35. Eg DRottinn hefe sagt þetta, þetta vil Eg og giora þessum vonda Almwga, sem sig hefur uppsett jmoot mier, þeir skulu aller verda ad ongvo j þessare Eydemorku, og deya j þessum Stad.
36. So doou aller þeir Menn j Plaagu, fyrer DROTTni, sem Moses hafde wtsendt ad rannsaka Landed, og voru komner aptur, og komu ollum Almwganum til ad mogla þar a moote,
37. Þar med, ad þeir wthroopudu af Landenu, ad þad være jllt.
38. Enn Josua, Son Nuns, og Caleb, Son Jephunne, lifdu epter af þeim Monnum sem fared hofdu ad skoda Landed.
39. Og Moses talade þesse Ord til allra Israels Barna, þa vard Folked miog sorgande.

40. Og um Morgunenn stodu þeir miøg snemma upp, og geingu uppa Fialled, og sogdu, Sioa, vier erum hier, og vilium fara upp til þess Stadar sem DRottinn hefur talad um, þvi vier høfum syndgast.

41. Enn Moses sagde, þvi yfertroded þier so Ord DRottins? Þad mun ecke luckast ydur,

42. Fared ecke upp þangad, þvi DRottinn er ecke medal ydar, ad þier falled ecke fyrer ydrum Ovinum.

43. Þvi Amalech og Cananei eru þar fyrer ydur, og þier munud falla fyrer Sverde, fyrer þvi, ad þier snerud ydur fra Drottni, mun DRottinn ecke vera med ydur.

44. Enn þeir voru einbeitter ad fara uppa Hæd Fiallsins, enn Sattmaals Ørk Drottins og Moses komu hvorge vr Herbwdum.

45. Þa komu þeir Amalechitar, og Cananitar ofann, sem biuggu j Fiallbygdum, og veittu þeim Slag, og sundur mørdu þa allt jnn til Horma.

## XV. Capitule.

Einn, sem broted hafre Sabbathenn, er straffadur.

Og DROTTINN talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala vid Israels Børn, og seig þu til þeirra, Þa þier komed j þad Land sem þier skulud biggia, hvort ad Eg vil giefa ydur,

3. Og þier vilied giora DROTTNI Offur, hvort helldur þad er eitt Brenne-Offur, eda eitt Offur fyrer nockra sierlega Heitstreinging, eda er þad eitt sialfviliugt Offur, eda ydart Hatijda Offur, so þier meiged giøra DROTTNI eirn sætann Ilm, af Nautum eda Saudum.

4. Hvor sem vill offra DROTTni sijna Giafu, hann skal giøra til Mat-Offurs þann Tijunda Part Hveitemiøls, blandad vid Fiordung af Hin Vidsmiørs,

5. Og enn Fiorda Part af Hin Vijns til Drickiar-Offurs, til eirnrar Brennne-Fornar, edur nockurs annars Offurs, þegar eitt Lamb er haft til Foornar.

6. Enn þa eirn Hrwtur er Foornfærdur, þa skalltu giora Mat-Offur, Tvo Tijunda Parta Hveitemiøls, blandad med Oleo, Pridia Part af Hin,

7. Og enn Pridia Part af Hin Vijns til Drickiar-Offurs, þad skalltu offra Drottni til eins Sæts Ilms.

8. Enn vilier þu offra DROTTni einum Uxa til eirnrar Brenne-Fornar, eda til eins sierligs Heitis-Foornar, eda til eins Packlætis-Offurs DROTTni,

9. Þa skalltu offra med sama Uxa til Mat-Offurs, þremur Tijundum Hveitemiøls, blondudum med hvalfre Hin Vidsmiørs.

10. Og eina hvalfa Hin Vijns til Drickiar-Offurs, þad er Offur DROTTni, til eins Sætleiks Ilms.

11. So skalltu giøra vid eirn Uxa, eirn Hrwt, eirn Saud, af Lømbum og Geitum.

12. Epter tolu þessara Foorna, þa skal og Talann vera a Mat-Offrenu, og so Drickiar-Offrenu,

13. Hvor hann er heima fæddur, hann skal soddann giora, ad hann offre DROTTni Offur til eins Sæts Ilms.

14. Enn ef þar byr nockur wtlendur medal ydar, eda oa medal ydar Ættar, og vill giora DRottni eitt Offur til eins Sæts Ilms, hann skal giøra lijko sem þeir giora.

15. Ein Skickan skal vera øllum Søfnude, bæde hiaa ydur, og so hiaa þeim Fromundum.

16. Þad skal vera ein æfinnleg Skickan hiaa ydrum Epterkomendum, ad sa hinn Framande skal vera fyrer DROTTni lijka sem þier. Eitt Løgmaal, eirn Riettur skal vera, bæde fyrer ydur, og so fyrer þa framande sem bwa hiaa ydur.

17. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

18. Tala þu vid Israelis Børn, og seig þu til þeirra, þa þier komed j þad Land j hvort Eg vil leida ydur,

19. Og þier eted af Braudenu þess Lands, þa

þa skulud þier giefa DROTTni eina Upplyp-
ting,

20. Sem er, eina Koku af ydar firsta Dei-
ge skulud þier giefa til Upplyptingar, lijka sem
þier giordud af Upplypting af Kornhlødunne,

21. So skulud þier og hiaa ydar Epterko-
mendum giefa DROTTni þad Firsta af ydar
Deige til Upplyptingar.

22. Og þegar þier sokum Ovitsku giored
ecke eitthvad af þessum Bodordum, sem
DROTTinn hefur talad til Mosen,

23. Og þad allt sem Herrann hefur boded
ydur, fyrer Mosen, fra þeim Deige, sem
hann tok First til ad skipa ydrum Epterkomen-
dum,

24. Ef Almwogenn giorer nu nockud af
Yfersion, þa skal allur Almwogenn taka eirn
ungann Uxa, af Nautunum, til Brenne-Foor-
nar, til eins Sæts Ilms fyrer DROTTni,
med sijnu Mat-Offre, og Drickiar-Offre, so
sem tilheyrer, og eirn Kiarnhafur til Synda-
Offurs.

25. Þa skal Presturenn giora eina Forlij-
kan fyrer allann Almwoga Israelis Barna, so
er þeim þad fyrergiefed, þvi þad er ein Yfer-
sion. Og þeir skulu bera DROTTni þessar
sijnar Gaafur til eins Offurs, og þeirra Syn-
da-Offur fyrer DROTTni, fyrer þeirra
Yfersion,

26. So verdur þad øllum Almwoganum
Israelis Barna fyrergiefid, so og lijka þeim
Fromondum sem ad bwa aa medal ydar, med
þvi ad allt Folked er j soddann Yfersion.

27. Enn þegar ein Saal syndgar af Yfer-
sion, hun skal fæɾa eina Geit aars gamla
framm til eins Synda-Offurs.

28. Og Presturenn skal forlijkun giora, fy-
rer þa Saal sem þa Yfersion hendte, med sama
Synda-Offre, fyrer þa Yfersion fyrer
DROTTni, ad hann forlijke hana, so ver-
dur þad henni fyrergiefed.

29. Og þetta skal vera eitt Løgmaal, ad þier
skulud giora fyrer Yfersionenne, bæde sa jnn-
lende a medal Israelis Barna, og sa wtlende
sem byr a medal ydar.

30. Enn þa ein Saal giorer nockud af sinne
(a) Þraakelkne, hvort sem hun er jnnlendsk, e-
da framande, su hefur foracktad DRottinn,
soddann ein Saal skal afmaad verda fra sijnu
Folke,

(a) (Þraakelkne) Þad er su Synd sem Madur vill
ecke þeckia fyrer Synd, helldur fyrer riettann Giør-
ning, so sem giora Kiettarar, sem umbreita GUds
Orde og Løgmaale, og utþyda þad epter þvi sem
þa lyster.

31. Fyrer þvi hun fyrerleit DROttins
Ord, og forliet hans Bod, hun skal med øllu
afmaast, Skulldenn sie hennar.

32. Og þad skiede þa Israels Børn voru j
Eydemørkenne, fundu þeir eirn Mann, hvor
ed saman safnade Triaam a einum Sabbaths-
Deige.

33. Enn þeir sem fundu hann ad þessu Ver-
ke, Triaanum ad safna, leiddu hann fyrer
Mosen og Aaron, og fyrer allann Søfnudenn,

34. Og þeir settu hann j Faangelse. Þvi
þad var enn þa ecke klarlega aakvedid hvad þar
skyllde giora vid hann.

35. Enn DROTTINN sagde til Mo-
sen, Sa Madur skal vissulega deya, allur Al-
mwogenn skal beria hann Griote til bana utann
Herbwdanna.

36. Þa færde allur Almwogenn hann wt
yfer Herbwdernar, og gryttu hann, so hann
doo, epter þvi sem DRottinn hafde boded
Mose.

37. Og DROTtinn talade vid Mosen,
og sagde,

38. Tala þu vid Israelis Børn, og seig
til þeirra, ad þeir skulu giora * Bremingar a
Saumum þeirra Kirtla, a medal allra ydra
Epterkomenda, og setia Gular Silkesnwrur
yfer sønu Bremingar, a Saumunum.

* Matth. 23, 5.

39. Og sønu Bremingar skulu þiena
ydur þar til, ad þier skulud horfa a þær, og
minnast a øll Bodord DRottins, og giøra
þau, og ecke hallda ydur epter-Hugbode

ydars Hiarta, og eige helldur fremia Hoordom epter ydrum Augum.

40. Par fyrer skulud þier minnast oa ad giora øll mijn Bod og vera heilager fyrer ydrum Gude.

41. Eg DRottinn ydar Gud, sem hefe utleidt ydur af Egyptalande, so ad eg være ydar Gud, Eg DRottinn ydar Gud.

# XVI. Capitule.

Korah og hans Selskapur giøra uppreist imote Mose og Aaron.

Og * Korah, son Jezehars, sonar Kahahts, sonar Levi, og Dathan, og Abiram, syner Eliabs, og On, son Peleths, sem var af sonum Ruben, * Jud: v. 11.

2. Þeir settu sig upp j moot Mose, med nockrum ødrum Mønnum af Israelis Børnum, Tvø hundrud og fimmtijge betur af þeim ypporstum medal Almuogans, Raadmenn og nafnkunnuger Menn,

3. Og þeir toku sig samann j moot Mose og Aaron, og søgdu til þeirra, Þid hafed ofmiked vid, þvi sa Almuge er allur samann Heilagur, og DRottinn er a medal þeirra, þvi upphefied þier ydur yfer Guds Almuga?

4. Og þa Moses þad heyrde fiell hann framm a sitt Andlit,

5. Og sagde til Korah og alls hans Selskapar, A morgun skal DRottinn syna hvør hans er, hvør Heilagur er, og hvør honum skal Offur færa, hvørn hann utvelur sa skal færa honum offur.

6. Gióred so, Taked ydur Reykelsis Kier, Korah og allur hans Selskapur,

7. Og legged Elld þar ut j, og legged Reykelse þar a, a Morgun fyrer DRottni, og hvørn DRottinn utvelur, sa vere heilagur, Þier hafed ofmiked vid, þier Levi Born.

8. Og Moses sagde til Korah, Heyred þier Børn Levi,

9. Þiker ydur þad so lijtels verdt, ad Israels Gud hefur skiled ydur fra Israels Almuga, ad þier skulud offra honum, og ad þier þioned j DRottins Tialldbudar Embætte, og ganged framm fyrer Almugann, og þioned honum?

10. Hann hefur medteked þig, og alla þijna Brædur Levi Born til sijn, Og þier gyrnest nu og so Prestanna Embætte,

11. Enn þu og allur þinn Selskapur giører eirn morþblastur j moote DRottni, Hvad er Aaron, ad þier mogled j moote honum?

12. Og Moses sende Bod þangad, og liet kalla Dathan, og Abiram, son Eliab. Enn þeir svørudu, Eige vilium vier fara upp þangad,

13. Er þad of lijted, ad þu hefur fært oss af þvi Lande sem Miolk og Hunang flytur j, til ad sloa oss j hel hier j Eydemørkenne? Villtu þa endelega Drottna yfer oss?

14. Hvørsu fijnlega hefur þu fært oss jnn j þad Land sem Miolk og Hunang flytur j? Og giefed oss Akra og Vijngarda til eignar? Villtu og slijta Augun ut a Folkenu? Ecke komum vier upp þangad.

15. Pa vard Moses afar reidur, og sagde til DRottins, Snu þier ecke til þeirra Matoffurs Eg hefe ecke teked eirn Asna fra þeim, og øngvum hef eg a moote giort a medal þeirra.

16. Og hann sagde til Korah, Þu og allur þinn Selskapur skulud vera a Morgun fyrer DRottne, þu og þeir, og Aaron.

17. So skal hvør af ydur taka sitt Gloodarkier, og leggia Reykelse þar uppa, og ganga framm fyrer DRottinn, hvør med sitt Gloodarkier, þad eru tvø Hundrud og fimmtiju Gloodarkier.

18. Og hvør tok sitt Gloodarkier, og løgdu Elld þar j, og Reykelse þar yfer, og geingu framm fyrer Samkundu Tialldbudardyr, og Moses og Aaron med.

19. Og Korah samansafnade øllum Almuganum j giegn þeim, utann fyrer Samkundu Tialldbudardyrunum.

20. Enn DRottins Dyrd opennberadest fyrer øllum Almuganum. Og DRottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

21. Ski-

21. Skilied ydur fra þeim Almwga, so eg meige skyndelega eydeleggia þa.

22. Enn þeir fiellu framm a sijnar Asionur, og sögdu, O Gud, þu sem ert eirn Gud Andanna alls Holldz, þo ad eirn Madur hafe syndgast, villtu þar fyrer lꝏta Grimmd þijna ganga yfir allann Almwgann?

23. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

24. Tala til Almwgans, og seig, Vijked fra Tiölldum þeirra Korah, Dathans, og Abirams, allt um kring.

25. Og Moses stod upp, og gieck til Dathan og Abiram, Og þeir ellstu af Jsrael filgdu honum epter.

26. Og hann talade vid Söfnudenn, og sagde, Vijked fraa þessum ogudlegra Manna Hybylum, og snerted ecke neitt af þvi sem þeim heyrer til, so þier skulud ecke fyrerfarast j öllum þeirra Syndum.

27. Og þeir viku upp fra Hybylum Korah, Dathans og Abirams. Enn Dathan og Abiram geingu ut, og stoodu j sinna Hybyla Dyrum, med sijnum Kvinnum, Sonum og Börnum.

28. Og Moses sagde, Þar af skulud þier merkia, ad DRottinn hefur sendt mig, ad eg skyllde giora öll þesse Verk, enn ecke af mijnu Hiarta.

29. Sie þad so, ad þesser deye, so sem aller Menn deya, eda sie þeirra heim vitiad, so sem allra annara Manna verdur vitiad, þa hefur ecke DRottinn utsendt mig.

30. Enn giore DRottinn nockud nytt, so ad Jordenn upp lꝏte sinn Munn, og uppsvelge þa med öllu þvi sem þeir hafa, so ad þeir fare lifande ofann j Helvijte, Þa skulud þier vita, ad þesser Menn hafa lastad DRottinn.

31. Og þa hann hafde ut talad öll þesse Ord, sprack Jordenn under þeim,

32 Og uppliet sinn Munn, og uppsvelgde þa med þeirra Hwsum, og med öllum þeim Mönnum sem voru med Korah, med öllum þeirra Fiaarhlutum,

33. Og þeir foru lifande ofann j Helvijte, med öllu þvi sem þeim kom til, og Jordenn hulde þa, og þeir fyrerfoorust so midt fra Almwganum,

34. Og allt Jsraels Folk, sem var allt j kringum þa, flydu fyrer þeirra Hroope, þvi þeir sögdu, Gud lꝏte Jordena og ecke eirnenn svelgia oss upp.

35. Þar ad auk foor og Eirn elldur ut fra DRottni, og foreydde þeim tveim Hundrudum og fimmtijge Mönnum sem offrudu Reykelse.

36. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

37. Seig Eleasar syne Aarons Prests, ad hann take Gloodar-kierinn upp ur Elldenum, og dreife Elldenum hingad og þangad, þviad Gloodar-kierenn, sem þeir aattu er syndgast höfdu a mote sijnum Saalum, eru helgud,

38. Og þau skulu slꝏst j breidar Skijfur, og heingiast j kringum Alltared, þvi þau eru offrud fyrer DRottni, og heilog giörd, Og þau skulu vera Jsraels Börnum til eins Teikns.

39. So tok Presturenn Eleasar þau Gloodarkier af Kopar, sem þeir höfdu offrad med sem brunnu, og sloo þau ut j Skijfur ad heingia um Alltarid,

40. Jsraels Börnum til eirnrar Minningar, ad eingenn Framande, sem ecke er af Aarons Sæde, skyllde giefa sig til ad offra Reykelse fyrer DRottni, so ad þad gange ecke þeim hinum sama, so sem ad gieck til med Korah og hans Selskap, sem DRottinn hafde sagt honum fyrer Mosen.

41. Annars Dags epter möglade allur Almwgenn Jsraels Barna j giegn Mose og Aaron og sögdu, Þier hafed sleiged DRottins Folk j hel.

42. Og þa Almwgenn samannsafnadest j moote Mose og Aaron, sneru þeir sier til Samkundu-Tialldbudarennar, Og sioa, ad Skyed hulde hana, og Dyrd DRottins opennberadest.

 43. Enn

43. Enn Moses og Aaron geingu jnn j Samkundu-Tialldbwdena.

44. Og DRottenn talade vid Mosen, og sagde,

45. Flyed burt fra þessum Almuga, Eg vil hastarlega eydeleggia þa, og þeir fiellu framm a þeirra Andlit.

46. Og Moses sagde til Aarons, Tak Gloodarkiere, o og legg Elld þar j af Alltarenu, og legg Reykelse þar uppa, og gack þu fliotlega þangad til Almwgans, og gior eina Forlijkun fyrer þa, Þvi þar er broad Reide ut geingenn af DRottni, og Plaagann er upp byrjud.

47. Og Aaron tok sem Moses hafde befalad honum, og hliop midt j millum Almwgans. (Og sioa, þa var Plaagann uppkomenn a medal Folksins) og hann brennde Reykelse, og giørde eina Forlijkun fyrer Folked,

48. Og stod j millum þeirra Daudu og hinna Lifendu, og so stillteft Plaagann.

49. Enn þeir sem dou j þeirre Plaagu voru Fiortan Þusunder, og Sio Hundrud, fyrer utann þa sem doou med Koralz.

50. Og Aaron kom til Mosen aptur, utann fyrer Samkundu-Tialldbudardyronum, og Plaagann stillteft.

## XVII. Capitule.

Aarons Stafur Blomgast og ber fullvaxenn Mandel.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þu vid Israels Born, og tak Tolf Stafe af þeim, eirn af hvorium Hofdingia yfer sijns Fodurs Huse, og skrifa sierhvors Nafn a hans Staf.

3. Enn Aarons Nafn skalltu skrifa a Staf Levi, þviad sinn Stafur skal vera fyrer hvort Hofud yfer þeirra Fedra Hwse.

4. Og legg þa j Samkundu-Tialldbudena, fyrer Vitnisburdenn, þar sem eg vitna fyrer ydur.

5. Og þann eg utvel, þess Stafur skal blomgast, Ad eg meige so stilla Mogl Israelis Barna, þad þeir mogla j Moote ydur.

6. Moses talade vid Israels Born, og aller þeirra Hofdingiar feingu honum Tolf Stafe, hvor Hofdinge einn staf, epter þeirra Fedra Hwse, og Aarons Stafur var og so a medal þeirra Stafa.

7. Og Moses lagde Stafena fyrer DRottinn, j Vitnisburdar Tialldbudina.

8. Enn um Morguninn, sem Moses gieck jnn j Vitnisburdar Tialldbwdina, fann hann Aarons Staf af Levi Hwse, ad hann var blomgadur ordenn, og blomstred var utsprunged, og bar Mandel.

9. Og Moses bar Stafena wt fra Drottni, til allra Israels Barna, so þeir soau þa, og hvor tok vid sijnum Staf.

10. Og DROTTinn sagde til Mosen, Ber Aarons Staf jnn aptur fyrer Vitnisburdenn, so hann sie geymdur til eins merkis þeim ohlidnu Bornum, so ad þeirra Moglan afleggest fyrer mier, so þeir skulu ecke deya.

11. Moses giorde sem DROTTinn baud honum.

12. Og Israels Born sogdu til Mosen, Sioa þu, vier fordiorfunst, og deyum, vier verdum aller afmoader og deyum,

13. Hvor sem kiemur nær Tialldbwd DROTTins, hann deyr, skulum vier þa med ollu eydeleggiast?

## XVIII. Capitule.

Embætte og uphellde Prestanna og Levitanna.

Og DROTTinn sagde til Aaron, Þu og þijner Syner, og þijns Fodurs Hws med þier, skulud bera Misgiorning Helgedomsins, og þu og þijner Syner med þier skulu bera Misgiorning ydars Presta Embættis.

2. Enn þu skallt taka þijna Brædur og þijns Fodurs Levi sleckte til þijn, so ad þeir skulu vera hioa þier, og þiona þier, enn þu og þijner Syner med þier skulu þiona j Vitnisburdarins Tialldbwd. 3. Og

3. Og þeir skulu taka vara uppa þinne Pionustu, og a þeirre allre Tialldbwdarennar Pionustu. Po skulu þeir ecke koma vid Helgedomsins Kier, eda vid Alltared, so ad bæde þeir og þier meiged ecke deya,

4. Enn þeir skulu vera med þier, og taka vara a Pionustunne j Samkundu-Tialldbwdenne, og a ollu Embætte Tialldbwdarennar, og eingenn Framande skal noalægiast ydur.

5. So taked nu vara a Helgedomsins Pionustu, og so a Alltaresins Pionustu, so ad hiedann j frao kome ecke meir hostug Reide yfer Israels Born.

6. Pvi sioa þu, Eg hefe teked ydar Brædur Levitana af Israels Bornum, og skeinkt ydur þa, DROTTni til eirnrar Goafu, ad þeir skylldu annast Embætte j Samkundu-Tialldbwdenne.

7. Enn þu og þijner Syner med þier skulu taka vara a ydru Presta-Embætte, so þier þioned j ollu þvi sem heyrer til Alltarenu, og fyrer innann Fortiallded, þvi Eg gief ydur ydar Prestdom til Embættis, fyrer eirn Skeink, Enn kome nockur framande þar til, þa skal hann deya.

8. Og DROTTinn sagde til Aaron, Sioa, Eg hefe giefed þier mijnar Upplyptingar-Forner, af ollu þvi sem Israels Born helga, fyrer þitt, og þinna Sona Prestanna Embætte, til eirnrar eylijfrar Skickunar.

9. Pad skalltu hafa af ollu þvi helgasta sem þeir offra, allar þeirra Goafur med ollu þeirra Mat-Offre, og med ollu þeirra Synda-Offre, og med ollu þeirra Skullda-Offre sem þeir giefa mier, þad skal vera þier og þijnum Sonum þad Allra Helgasta,

10. Og þu skallt eta þad j þeim Allra Helgasta Stad, hvad Karlkins er skal eta þar af, þvi þad skal vera þier Heilagt.

11. Og Eg hefe gefed þier þad sama Upplyptingar-Offur, af þeirra Goafum, med ollu Israelis Barna Veyfunar-Offre, ad þu og þijner Syner, og þijnar Dætur skulu hafa þau fyrer eylijfa Skickan, hvor sem hreinn er j þijnu Hwse, skal eta þar af.

12. Allt þad besta af Vidsmiorenu, og allt þad besta af Vijnenu, og allt þad Firsta af Kornsins Soade, sem þeir giefa DRottni, þad hef Eg giefed þier.

13. Pann Firsta Avoxt af ollu þvi sem er j þeirra Lande, sem þeir giefa DROTTni, þad skal vera þitt, hvor sem er hreinn j þijnu Hwse hann skal eta þar af

14. Allt þad sem bannfært er j Israel, þad skal vera þitt.

15. Allt þad sem first opnar sinnar Modur Kvid af ollu Hollde, sem þeir bera til Drottins, hvort þad er af Monnum, eda af Fienadenum, þad skal vera þitt. Po so, ad þu loater Mannsins Frumburd leysast aptur, og sa Frumburdur af ohreinu Fie skal og leysast.

16. Enn þeir skulu leysa þad, þa þad er eins Moanadar gamallt, og þad skal giefast laust fyrer Peninga, fyrer Fimm Siklos, epter Helgedomsins Sikle, sem gillder Tuttugu Gera.

17. Enn þa Frumburde af Nautum og Saudum, eda Geitum, skalltu ecke loata til Lausnar, þvi þad er Heilagt, þeirra Blode skalltu stockva a Alltared, og upptendra þeirra Feite til eins Offurs, til eins Sæts Ilms fyrer DROTTni,

18. Peirra Kiot skal heyra þier til lijka sem Veyfunar-Bringann, og soa hægre Boguenn heyrer þier til.

19. Oll Upplyptingar-Offur, sem Israels Born helga Drottni, hefe Eg giefed þier og þijnum Sonum, og þijnum Dætrum med þier, til eirnrar eylijfrar Skickunar, þad skal vera þier, og þijnu Sæde med þier, eirn oforgeingelegur Soattmoale fyrer DROTTni æfinnlega.

20. Og DROTTinn sagde til Aarons, þu skallt eckert eignast j þeirra Lande, og eckert Hlutskipte a medal þeirra taka, þvi Eg er þitt Hlutskipte, og þinn Arfur a medal Israels Barna,

21 Enn Eg hefe giefed Levi Bornum allar Tijunder j Israel, til eins Arfs fyrer þeirra Pionustu, sem þeir giora mier j Samkundu-Tialldbwdenne. 22. Ad

22. Ad Israels Born skulu ecke meir hier epter fara til Samkundu-Tialldbwdarennar, so þeir hlade ecke a sig nockre Synd, og deye.

23. Enn Levitarner skulu taka vara a Pionustunne j Samkundu-Tialldbwdenne, og þeir skulu bera þeirra annara Misgiorninga, til eins eylijfs Riettar hiaa ydar Epterkomendum. Og þeir skulu eckert Arfa gots eignast medal Israels Barna,

24. Pvi Eg hefe giefed Levitunum til eins Arfs Tiunder Israels Barna, sem þeir upplypta fyrer DROTTni, þvi hefe Eg sagt til þeirra, ad þeir skulu ongvann Arf eignast a medal Israels Barna.

25. Og DROTTinn talade vid Mosen og sagde,

26. Tala þu vid Levitana, og seig þu til þeirra, þa þier taked þa Tijund af Israels Bornum, sem Eg hefe giefed ydur af þeim, til ydars Erfda Gots, þa skulud þier giora DROTTni eitt Upplyptingar-Offur þar af, jaa, þann Tijunda Part af Tijundenne,

27. Og þad ydar Upplyptingar-Offur skal reiknast ydur, lijka sem þier giæfud Korned af Hlodunne, og (a) Fyllinguna af Vijnþrwgunne.

(a) (Fylling) Þad er, Vijn, Vidsmior, og annad þvilijkt.

28. So skulud þier og giefa DROTTni Upplyptingar-Offur af ollum ydar Tijundum, sem þier taked af Israels Bornum, ad þier giefed Prestenum Aaron þad sama DROTTins Upplypt Offur.

29. Þier skulud giefa DROTTni Upplyptingar-Offur af ollu þvi sem ydur giefst, af ollu þvi hinu besta, sem helgad verdur þar af.

30. Og seig þu til þeirra, þa þier so upplypted þvi (b) besta þar af, þa skal þad reiknast Levitunum til, lijka sem ein jnntekt af Kornhlodunne, og lijka sem ein jnntekt af Vijnpressunne.

(b) (Besta) þad er, þvi enn Feita.

31. Og þetta meiged þier eta a ollum stodum, þier og ydar Born, þvi þad eru ydar Laun fyrer ydar Pionustu j Samkundu-Tialldbwdenne, so hladed ecke a ydur Syndum þar med, þa þier upplypted þvi besta þar af, og vanhelged ecke þad sem Israels Born helga, so skulud þier ecke deya.

# XIX. Capitule.

Adreisingar Vatn af Osku þeirrar Raudu Kvijgu.

Og DROTTinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

2. Þesse Skickan skal vera eitt Logmaal, sem DROTTinn hefur boded og sagt, seig til Israels Barna, ad þeir leide eina Rauda Ku til þijn, aan lyta, sem ongvann vauka hefur a sier, og su sem enn hefur eckert Ok bored.

3. Og faaed Prestenum Eleasar hana j Hendur, hann skal færa hana wt fyrer Herbwdernar, og laata slaatra henne þar fyrer sier.

4. Og Presturenn Eleasar skal taka af hennar Blode med sijnum Fingre, og stockva þvi strax Siosinnum mot Samkundu-Tialldbwdenne,

5. Og laata uppbrenna Kuna fyrer sier, bæde hennar Hwd og Holld, og so hennar Blod og Myke.

6 Og Presturenn skal taka Cedrus Trie, og Ysop, og Purpura Ull, og kasta þvi uppa þa brenndu Kuna.

7. Og hann skal þvo sijn Klæde, og bada sinn Lijkama j Vatne, og fara so jnn j Herbwdernar, og vera ohreinn til Kvollds.

8. Og sa sem hana brennde skal og þvo sijn Fot j Vatne, og bada sinn Lijkama j Vatne, og vera ohreinn til Kvollds.

9. Og einn Madur, sa sem hann er hreinn, skal samansafna Oskunne af Kunne, og hella henne wtfyrer Herbwdernar, a hreinann Stad, so hun meige vera þar geymd fyrer Almwgann af Israelis Bornum, til eins Adreisingar Vatns, þvi þad er eitt Synda-Offur.

10. Og sa same sem Oskunne safnade af Kunne

Kunne skal þvo siin Klæde, og vera ohreinn til Kvollds. Þetta skal vera ein eyliif Skickan fyrer Israels Born, og fyrer þa Utlendu sem bwa a medal ydar.

11. Hvor sem kiemur vid nockurn Daudann Mann sa skal vera ohreinn j Sio Daga,

12. Hann skal med þessu (Vatne) leysa sig af Syndinne, þann þridia Dag, og þann Siounda Dag, so er hann hreinn. Enn ef hann leyser sig ecke af Syndenne, þann þridia Dag, og þann Siounda Dag, þa verdur hann ecke hreinn.

13. Enn ef nockur snerter Daudann Mann, og vill ecke leysa sig af Syndenne, sa giorer DROTTins Tialldbwd ohreina, og soddan Sal skal afmaast af Israel, þviad Dreifingar Vatne er ecke stockt a hann, so er hann ohreinn, so leinge sem hann lætur sig ecke hreinsa þar af.

14. Þetta er Logmaal, þa eirn Madur deyr j Tialldbwd, hvor sem inngeingur j sama Tialld, og allt þad sem er j Tialldenu skal vera ohreint j Sio Daga,

15. Og hvert oped Kier sem ecke er Lok yfer, eda bunded yfer, þad er ohreint,

16. Og hvor sem hrærer vid nockurn sem sleigenn er til Dauds vt a Morkenne med Sverde, eda vid nockurn annann, sem odru viis er Daudur, eda vid Manns Bein, eda Grof, hann er ohreinn j Sio Daga.

17. So skulu þeir nu taka fyrer þann enn Ohreina, af þeirre* brenndu Syndaoffurs Osku, og laata rennanda Vatn þar ut yfer j eitt Kier,     * Ebr. 9, 13.

18. Og eirn hreinn Madur skal taka Ysop og diifa j Vatned, og stockva a Tialldbudena, og oll Kier, og allar Saaler sem þar inne eru, og liika þann sem komed hefur vid þess Dauda Manns Bein, eda j hel sleiginn, eda vid Framlidenn, eda vid Grof.

19. Þa skal sa Hreine stockva a þann Ohreina a þridia Deige, og aa siounda Deige, Og aa siounda Deige skal hann leysa hann, og hann skal þvo siin Klæde, og lauga sig j Vatne, þa verdur hann hreinn um Kvollded.

20. Hvor sem verdur ohreinn, og vill ecke laata sig afleysa, þess Saal skal afmaad verda fra Almwganum, þvi hann hefur giort DRottins Helgedom ohreinann, og er ecke adreyfdur med Dreifingar Vatnenu, þar fyrer er hann ohreinn.

21. Og þetta skal vera þeim ein eyliif skickan, og sa sem stockver Dreifingar Vatnenu hann skal og þvo siin Klæde, og hvor sem snerter Dreifingar Vatned, sa skal vera ohreinn til Kvollds,

22. Og allt þad hann kiemur vid verdur ohreint, og hvor Saal sem snerter hann su skal vera ohrein til Kvollds.

## XX. Capitule.

(I) Gud gefur Israels Bornum Vatn af Hellu-Biargenu. (II) Aaron andast.

I. Og Israels Born komu med ollum Almuganum j þa Eydemorku Zin, a þeim Firsta Maanade, og Folked laa j Kades, og þar andadest Maria, og var þar jordud.

2. Og Almugann brast Vatn, og safnadest samann j moot Mose og Aaron,

3. Og Almwgenn þraattade j giegn Mose, og sagde, Æ, Gud giæfe ad vær hefdum daaed, þar sem vorer Brædur dou fyrer DRottni,

4. Þvi leiddud þid Guds Alþydu hingad j þessa Eydemorku, ad vier skylldum hier so deya med voru Kvikfie,

5. Og þvi færdud þid oss af Egyptalande hingad j þennann vondann Stad, þar Menn kunna ecke ad saa, þar hvorke vaxa Fijkiur, nie Viintrie, og eige Granata Eple, og ad auk þessa er hier ecke Vatn ad drecka?

6. Enn Moses og Aaron geingu fra Almwganum til Samkundu-Tialldbudardyranna, og fiellu framm a siinar Asionur, og Dyrdenn DRottins birtest þeim,

7. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

8. Tak þinn Staf, og samansafna Almwg-
ganum, þu og þinn Broder Aaron, og tala
þu vid Steininn fyrer þeirra Augum, þa
mun hann giefa Vatn af sier, so skalltu lei-
da þeim Vatn af þeim Steine, og giefa Al-
mwganum ad drecka, og hans Fienade.
9. Pa tok Moses Stafenn fyrer DRott-
ni, sem hann hafde bifalad hønum.
10. Og Moses og Aaron samansøfnudu
Almwganum til Steinsins, og sagde til þeirra,
Heyred þier Ohlyduger, Munum vier gieta
leidt ydur Vatn af þessum Steine?
11. Og * Moses upplypte sinne Hende, og
sloo tvisvar a Steinenn med Stafnum, þa
kom miked Vatn ut, so ad Almwgenn drack
og allur þeirra Fienadur. * 1 Cor. 10, 4.
12. Og DRottinn sagde til Mosen og
Aaron, Sokum þess ad þid trwdud mier
ecke, og helgudud mig ecke fyrer Israels Bør-
num, þa skulud þid ecke innleida þennann Al-
mwga j þad Land sem eg vil giefa þeim.
13. Petta er Motmælis Vatn, þar sem
Israels Børn þreattudu j giegn DRottni,
og hann helgadest a þeim.
14. Og Moses sende bod af Kades, til
Kongs þeirra Edomitarum, Israel þinn
Broder lætur þier so seigia, Pu veitst allt
þad Erfide sem oss hefur skied,
15. Ad vorer Forfedur ferdudust ofann j
Egyptaland, og vier biuggum langa æfe j
Egyptalande, og ad Egyptarner høndludu
illa vid oss, og vora Forfedur,
16. Og vier kølludum til DRottins, hann
heyrde vora Raust, og sende oss einn Eingel,
og leidde oss af Egyptalande. Og sioa nu, ad
vier erum nu j Kades Stad, hioa þijnum
Landamerkium,
17. Leyf oss ad fara j giegnum þitt Land,
vier viljum hvorke ganga yfer Akra nie Vijn-
garda, og eige helldur drecka Vatned af
Brunnunum, vier viljum fara Þiodgøtur,
og vijkia hvorke til vinstre nie hægre Handar,
fyrr enn vier erum komner yfer þijn Lan-
damerke.
18. Edomitar søgdu til þeirra, Pu skallt
ecke ferdast j giegnum mig, ella vil eg fara j
moote þier med Sverde.
19. Israels Børn søgdu til hans, Vier
viljum fara þann beinsta veg, Og ef vier
dreckum af þijnu Vatne, vier og vor Fiena-
dur, þa viljum vier þad bitala, Vier viljum
ecke annars enn ganga a Fæte hier j giegnum.
20. Enn hann sagde, Pu skallt ecke gan-
ga hier j giegnum. Og Edomitarner drogu wt
j moote þeim med miklu Lide, og med eirnre
Megtugre Hønd.
21. So vørnudu Edomitarner Israel ad
ferdast j giegnum þeirra Landamerke. Og
Israel veik fra þeim.
22. Og Israels Børn toku sig upp fra
Kades, og komu med allann Almwgann til
þess Fialls Hor.
III. 23. Og DRottinn talade vid Mosen og
Aaron a Fiallenu Hor, hioa Edomita Landa-
merkium,
24. Og sagde, Safnest Aaron til sijns
Folks, þvi ad hann skal ecke koma j þad Land
sem eg hefe giefed Israels Børnum, þvi ad þier
vorud mijnum Munne ohlyduger, hioa Mot-
mælis vatnenu,
25. Tak Aaron og hans Son Eleasar, og
leid þa bæda uppa Fialled Hor,
26. Og fær þu Aaron af hans Klædum,
og fær þu hans son Eleasar j þau, Aaron skal
þar safnast sier, og deya.
27. Pa giorde Moses sem DRottinn haf-
de befalad hønum, og þeir geingu upp a Fial-
led Hor fyrer øllum Almwganum.
28. Og Moses færde Aaron af sijnum Klæ-
dum, og færde hans son Eleasar j þau.
29. Og Aaron andadest þar uppa þvi
Fialle, Enn Moses og Eleasar geingu ofann
af Fiallenu. Og þa allur Almwgenn sa ad
Aaron var j burt, grietu þeir hann j þriatiju
Daga, allt Israelis Hws.

## XXI. Capitule.

Brennande Høggormar bijta Folked so þad Deyr.

Pa

Pa Arad Kongur Cananeorum, sem bio j Sudur, heyrde ad Jsrael var komenn, a veige Njosnar manna, þa bardest hann a mote Jsrael, og færde burt nockra foangna af þeim.

2. Pa hiet Jsraels Lydur DRottni einu Heite, og sagde, Þegar þu giefur þetta Folk under mijna Hond, þa vil eg bannfæra þeirra Borger.

3. Og DRottinn heyrde Jsraelis Raust, og gaf þeim Cananitana, og þeir bannfærdu þa, og þeirra Borger, og kolludu þann stad (a) Harma.

(a) (Harma) þad er Bann.

4. Sijdann reistu þeir fra þvi fialle Hor, a Veigenn, sem liggur til þess Rauda Hafs, ad þeir fære um kring Landed þeirra Edomita.

5. Og Folkenu leiddest Vegaleingdenn, og talade * j mote Gude, og j mote Mose, Þvi færder þu oss af Egyptalande, so ad vier dæum j þessare Eydemorku? Þvi hier er hverke Braud nie Vatn, og vorar Sealer velger vid þessare liettre fædu. * 1 Cor. 10, 9.

6. Pa sende DRottinn brennande * Hoggorma a medal Folksins, þeir bitu Folked, so ad marger dou af Jsrael.

(*) Þeir kallast Brennande, þvi Menn urdu af þeirra Eyture rauder sem Elldur, og dou af hita sem j Drepsott, edur Carbunculo.

7. Þa komu þeir til Mosen og sogdu, vier hofum syndgast j þvi, ad vier hofum talad j moote DRottni, og j moote þier, Bid þu DRottinn, ad hann vilie taka þessa Hoggorma fra oss. Og Moses bad fyrer Folkenu.

8. Þa sagde DRottinn vid Mosen, Gior þier eirn Eirorm, og reis hann upp til eins merkis, Hvor sem er bitenn, og lytur a hann, sa skal lifa.

9. Pa giorde Moses * einn Eirorm, og reiste hann upp til eins merkis. Og þegar eirn Hoggormur beit nockurn, þa leit sa til Eirormsins, og hiellt Lijfe. * Joh. 3, 14.

10. Og Jsraels Born foru ut, og logrudu sig j Oboth.

11. Þeir foru fra Oboth, og logdu sig j Jjm, hia Abarim Fialle, j Eydemorkenne, þvert yfer fra Moab, j mot Soolar uppgange.

12. Þeir ferdudust þadan, og logdu sig hia þeim Læk Sared.

13. Pa dron þeir þar fra, og logdu sig þessumeigenn Arnon, sem liggur j Eydemorku, og strecker sig þadan ut til Amoritanna Landamerkia, þviad Arnon er Moabs Landamerke, millum Moab og þeirra Amorita.

14. Þarfyrer seiger j Bardaga Bok DRottins, ad Vaheb j Supha og Arnons Lækur,

15. Og Lækianna Uppsprettur, sem taka til Borgar Ar, og beyger sig, er Moabitanna Landamerke.

16. Og þeir ferdudust þadann, til eins Brunns, þad er sa Brunnur sem DRottinn talade um vid Mosen, Samansafna Folkenu, Eg vil giefa þeim Vatn.

17. Þar saung Jsrael þessa Vijsu, og eirn saung til annars yfer Brunnenum,

18. Þesse er sa Brunnur sem Hofdingiarner hafa grafed, þeir gofugu a medal Folksins hafa grafed hann, fyrer Læremeistarann og þeirra (b) Stafe. Þeir fooru fra þessare Audn til Mathana,

(b) (Stafe) Stafer meiga hier kallast Hofdingiarner sialfer, svo sem hia Esaia kallast Egyptalands Kongur Stafur, þvi hann stiornar Folkenu.

19. Og fra Mathana til Nahaliel, og fra Nahaliel til Bamoth,

20. Og fra Bamoth til þess Dals sem liggur j Moabitanna Lande, til þess hæafa Fiallsins Pisga, sem breidest vid Eydemorkenne.

21. Og Jsrael sende bod til Sihon Amorita Kongs, og liet seigia honum,

22. Leyf mier ad fara j giegnum þitt Land, vier vilium ecke vijkia ut a Akrana, og ecke j Vijngardana, vier vilium og ecke drecka Vatned af Brunnunum, vier vilium fara Þiod-brauter, þar til ad vier komum j giegnum þijn Landamerke.

23. Enn Sihon villde ecke gefa Jsrael fararleyfe j giegnum sijn Landamerke, helldur safnade hann ad sier ollu sijnu Folke, og droo ut

ut j mot Jsrael j Eydemorkena, Og þa hann kom til Jachza, bardest hann vid Jsrael.

24. Enn Jsrael slo hann med Sverds eggium, og inntok hans Land fra Arnon, og allt til Jabok, og allt til Ammons Barna, þvi Ammons Barna Landa merke voru rambigd.

25. So tok Jsrael alla þessa Stade, og bioo j ollum Ammoritanna Stodum, j Hesbon, og ollum hennar (c) Dætrum,

(c) (Dætrum) þad er Þorpum og smaa Stodum, sem liggia umhverfis þa Borg.

26. Þviad Borgenn Hesbon heyrde Sihon Ammoritanna Konge til, og hann hafde adur strijdt jmoote Kongenum þeirra Moabitarum, og teked hans Land fra honum, allt til Arnon.

27. Hier af hafa Menn þetta Moaltæke, Komed til Hesbon, ad biggia og uppreisa Sihons Stad,

28. Þvi þar er vtfarenn Elldur af Hesbon, eirn Loge af Sihons Stad, sem hefur uppeted Ar þeirra Moabitanna, og Borgarana þeirrar hoafu Arnon.

29. Vei þier Moab, þu Camos Folk ert fortapad, hans Syner hafa vered slegner a flootta, og hans Dætur voru herteknar, hafdar j burt til Sihons Amorita Kongs.

30. Þeirra Vegsemd er ordenn ad ongvo, fra Hesbon og jnn til Dibon, hun er eydelogd allt til Nopha, sem nær til Medba.

31. So bio Jsrael j Ammoritanna Lande.

32. Og Moses sende Niosnarmenn vt til Jaeser, og þeir unnu hennar Dætur, og jnntoku þa Ammorita sem þar voru jnne.

33. Og þeir sneru sier, og drogu upp ad Veigenum til Basan, þa droo og Kongurenn af Basan ut jmoote þeim, med allt sitt Folk ad beriast j Edrei.

34. Og DROTTinn sagde til Mosen, Ottast hann ecke, þvi eg hefe giefed hann j þijnar Hendur, med Lande og Lydum, og þu skallt giora vid hann, lijka sem þu giorder vid Sihon Ammoritanna Kong, sem bioo j Hesbon.

35. Og þeir slou hann og hans Sonu, og allt hans Folk, so þar var ecke eirn epter, og jnntoku Landed.

XXII. Cap. 1. Epter þetta Fooru Jsraels Born aframm, og settu Herbuder sijnar a Vollum Moabitanna, hinumeigenn Jordanar, gagnvart Jericho.

## XXII. Capitule.

(I) Balak sender epter Balaam, Hvers (II) Asna ad talar.

I. Þa Balak, Son Zipors, sa allt þad sem Jsrael hafde giort þeim Ammoreis,

3. Og ad Moabitarner voru miog hrædder fyrer þessu Folke, sem so var margt, og ad Moabitarner voru ottaslegner fyrer Jsraelis Bornum,

4. Sagde hann til Olldunga þeirra Madianita, Nu mun þesse Flockur upp eta allt þad sem er j kringum oss, lijka sem Uxar upp eta Grased a Morkenne. Enn Balak, son Zipors, var j þann Tijma Kongur þeirra Moabita.

5. Og hann sende Bod til Balaams, Beors Sonar, til Pethor, hann bio hioa Vatnenu j Lande Barna sijns Folks, ad þeir skylldu kalla hann, og seigia honum so, Sioa, þar er eitt Folk komed af Egyptalande, þad hylur Andlit Jardarennar, og liggur gagnvart mier.

6. Þar fyrer kom nu og bolva fyrer mig þessu Folke, þvi þad er stirkvara enn eg, ef eg mætte sloa þad, og burt ryma þad af Landenu, þvi eg veit, hvorium þu blessar, hann er blessadur, og hverium þu bolvar, hann er Bolvadur.

7. Og Olldungar þeirra Moabita fooru med þeim Ellstu af Madianitum, og hofdu Spaadoms Launenn j sijnum Hondum, og þeir geingu jnn til Balaam, og sogdu honum Ord Balaks.

8. Og hann sagde til þeirra, Vered hier j Noott, so vil eg giefa ydur svar aptur, epter þvi sem DRottinn seiger mier. So voru Hofdingiar Moabitarum hioa Balaam.

9. Og

9. Og GUD kom til Balaam, og sagde, Hvad er þad fyrer Folk, sem er hiaa þier?
10. Balaam sagde til GUDs, Balak, Son Zipors, Moabitarum Kongur, sende þa til mijn,
11. Sie, þar er eitt Folk komed af Egyptalande, og hylur Andlit Jardar, so kom nu, og bølva þeim fyrer mig, ef eg mætte beriast vid þa, og reka þa burt.
12. GUD sagde til Balaam, Far ecke med þeim, og ey helldur skalltu bølva þessu Folke, þvi þad er Blessad.
13. Þa stood Balaam aarla upp um Morguninn, og sagde til Hofdingia Balaks, Fared heim j ydart Land, þvi DRottinn vill ecke leyfa mier ad fara med ydur.
14. Hofdingiarner þeirra Moabita toku sig upp, komu til Balaks, og sögdu, Balaam vill ecke fara med oss.
15. Þa sende Balak enn j annad sinn, fleyre og veglegre Hofdingia helldur enn þad hiner voru.
16. Þa þeir komu til Balaam, sögdu þeir til hans, So lætur Balak, Son Zipors, seigia þier, afsaka þig ecke ad koma til mijn.
17. Þvi eg vil giora þier stora Æru, og hvad þu seiger mier til þad vil eg giora, eg bid, Kom og bølva fyrer mig þessu Folke.
18. Balaam svarade, og sagde til Þienara Balaks, þo Balak villde giefa mier sitt Hws fullt med Silfur og Gull, þa kynne eg þo ecke ad yfertroda Ord mijns Drottins Guds, hvorke lijted edur miked ad giora.
19. Vered þo sem aadur hier og þessa Nott, so eg meige reyna til, hvad DRottinn vill enn framar meir tala vid mig.
20. Þa kom GUD um Nottena til Balaam, og sagde til hans, ef þesser Menn eru komner hingad ad kalla þig, þa tak þig upp og far med þeim, enn þo skalltu þad giora sem eg seige þier.
21. Þa stod Balaam upp um Morguninn og sødlade Øsnu sijna, og foor af stad med Moabita Hofdingium.
22. Enn GUD reiddest miøg, ad hann ferdadest þangad. Og Eingell DRottins gieck framm j Veigenn, ad standa honum jmoote, enn hann reid a sinne Øsnu, og hafde Tvo Þienara med sier.
23. Og Asnann saa Eingel DROTTins standa j Veigenum, og eitt brugded Sverd j hans Hende. Og Asnann veik af Gotunne, og gieck a Akurenn, enn Balaam sloo hana, so hun skyllde ganga Veigenn.
24. Þa gieck Eingell DRottins framm a eirn þraungvann Stijg, hiaa Vijngordum, þar Gardar voru a baadar Sijdur.
25. Enn sem Asnann saa Eingil Drottins, þreyngde hun sier upp ad Gardenum, og kreiste Balaams Foot vid Gardenn, og hann slo hana enn meir.
26. Þa gieck Eingell DRottins enn leingra framm, og a eirn mioann Stijg, þar sem hvorge maatte afvijkia, hvorke til Vinstre nie Hægre Hlidar.
27. Og sem Asnann saa Eingel DRottins, fiell hun nidur a sijn Knie under Balaam. Þa vard Balaam miøg reidur, og hann slo Øsnuna med Stafnum.
ii. 28 Þa *upplauk DRottinn Munne Øsnunnar, og hun sagde til Balaam, Hvad hef eg þess giort þier, ad þu hefur nu sleged mig þrisvar? * 2 Petr. 2, 16.
29. Balaam sagde til Øsnunnar, Fyrer þad þu hæder mig, være so vel, ad eg hefde nu Sverd j minne Hende, skyllda eg drepa þig.
30. Asnann svarade Balaam, Er eg ecke þijn Asna, þeirre þu hefur rided þijna Tijd jnn til þessa Dags, Hef eg nockurn Tijma vered Von ad giora þier soddann? Hann sagde, Nei.
31. Þa upplauk DRottinn Augum Balaam, so ad hann saa Eingel DRottins standa j Veigenum, med brugded Sverd j hans Hende. Og Balaam hneigde og beigde sig nidur aa sijna Asionu.
32. Og Eingell DRottins sagde til hans,

Hvar fyrer hefur þu sleiged so þijna Ösnu nu j þriar Reisur? Sioa, Eg er vtfarenn til þess ad standa þier jmoote, þvi þinn Vegur er mier mootstadlegur, og Asnann sea mig, og veik þrisvar fyrer mier,

33. Enn hefde hun ecke viked fyrer mier, þa villda eg hafa sleiged þig jhel, enn lœted Ösnuna lifa.

34. Þa sagde Balaam til DRottins Eingels, Eg hefe syndgast, þvi eg visse ecke, ad þu stodst jmoote mier a Veigenum, og ef þesse mijn Reisa þocknast þier ecke, þa vil eg snua aptur.

35. Eingell DRottins sagde til hans. Far þu med þessum Monnum, enn þu skallt ecke tala neitt annad, enn þad sem eg seige þier. So foor Balaam med Hofdingium Balaks.

36. Þegar Balak spurde komu Balaams, foor hann vt a moote honum til eins Stadar þeirra Moabita, hvor ed liggur j Landamerkium Arnons, sem er hia þeim ytstu Landamerkium,

37. Og sagde til hans, Sende eg ecke Bod til þijn, og liet kalla þig? Þvi komstu þa ecke til mijn? Eda meinar þu, ad eg giete ecke virdt þig?

38. Balaam svarade honum, Sioa, eg er komenn til þijn, enn hvornenn mœa eg nockud annad mœla enn þad sem GUD leggur mier j Munn, þad mun eg tala.

39. So foor Balaam med Balak, og þeir komu j Gatnastadenn.

40. Og Balak Offrade Nautum og Saudum, og sende epter Balaam, og þeim Hofdingium sem voru hia honum.

## XXIII. Capitule.

Balaam blessar Israels Børn mote Balaks Vilia.

41. Um Morgunenn tok Balak Balaam, og hafde hann uppa (a) Baals Hæd, so hann mætte sioa þann ytsta Þyrpingar Brodd Folksins.

(a) (Baals Hæd) þad er, Baals Kirkia.

XXIII. Cap. 1. Og Balaam sagde til Balak, Gior mier hier Sio Alltare, og skicka mier hingad Sio Uxa og Sio Hrvta.

2. Balak giorde sem Balaam sagde, og þeir baader, Balak og Balaam, færdu Foorner, jaa, upp a hvort Alltare einn Uxa og einn Hrvt.

3. Og Balaam sagde til Balak, Stattu hia þijnu Brenne-Offre, eg vil ganga j burt, ef skie mætte, ad (b) DRottinn mæte mier, so eg kunngiore þier hvad hann vnderviisar mier.

(b) (DRottinn) Hier lijgur Balaam, ad hann vill de ganga til DRottins, hvor ed alla veldu var buenn ad seigia honum, ad hann skylde ecke bolva. Helldur geingur hann til sinna Tofrara, under Drottins Nafne.

4. Og hann gieck skyndelega af Stad. Og DRottinn mætte Balaam, og hann sagde til hans, Eg hefe tilbwed Sio Alltare, og offrad einum Uxa og einum Hrvt yfer hvort Alltare.

5. Þa lagde DRottinn Orded j Munn Balaam, og sagde, Gacktu til Balak aptur, og seig þu so.

6. Og sem hann kom til hans aptur, Sioa, þa stood hann hia sinne Brenne-Foorn, med ollum Moabitanna Hofdingium.

7. Þa upp hoof Balaam sijna (c) Rædu, og sagde, Af Syria hefur Balak Moabitanna Kongur lœted kalla mig, fra Fiollunum j moot Austre, Kom og bolva fyrer mig Jacob, Kom, formæl þu Israel.

(c) (Ræda) Merker hier Spaa, þad er soddan Rædu sem hann mællte ecke af sialfum sier, helldur lagde Gud honum þad j Munn. So sem þegar einn ogudlegur Madur talar framm Guds Orda Texta, sem er j moote honum sialfum, og hans Lijkum.

8. Med hvoriu moote mœa eg bolva þeim sem Gud ecke bolvar? Eda hvornenn mœa eg formæla þeim sem Gud ecke formæler?

9. Þvi eg sie þa vel af þessum hœfum Biorgum, og af Hædum skoda eg þa. Sioa,

Sioa, þad Folk skal sierj lage bwa, og ecke reiknast a medal Heidingia.
10. Hvor kann ad telia Dupt Jacobs, eda Toluna af einum Fiorda parte Israels? Mijn Saal deye Riettlaatra Manna Dauda, og mitt hid sijdarsta verde lijka sem þeirra hid sijdarsta.
11. Pa sagde Balak til Balaam, Hvad giorer þu mier? Eg liet sækia þig ad bolva mijnum Ovinum, og sioa, þu blessar þa!
12. Hann svarade, og sagde, Skal eg þad ecke hallda og tala sem DRottinn leggur mier j Munn?
13. Balak sagde til hans, Eg bid, kom med mier a eirn annann stad, af hvorium þu kannt ad sioa Halann af þeim, og þo ei þa alla, og bølva þeim þar fyrer mig.
14. Og hann fœrde hann uppa vijdt Sliettlende, a Hœdena af Pisga, og biggde Sio Alltare, og offrade yfer hvort Alltare einum Uxa, og einum Hrwt.
15. Og sagde til Balak, Stattu hier hia þinne Brennefoorn, eg vil taka vara þar,
16. Og DRottinn mætte Balaam, og gaf honum Orded j hans Munn, og sagde, Far til Balak aptur, og tala so.
17. Og sem hann kom til hans aptur, Sioa, þa stod hann hia sijnu Brenneoffre, med Moabitanna Hofdingium,
18. Og Balak sagde til hans, Hvad sagde DRottinn? Og hann upphoof sitt Maal, og sagde, Rijs upp Balak, og heyr þu til, saumgiæf þu hvad eg seige, þu son Zipor.
19. Gud er ecke (d) Madur ad hann liuge, eige helldur Manns Barn, so hann angre nockud, skyllde hann seigia nockud, og giora þad ecke? Skyllde hann tala nockud, og hallda þad ecke?

(d) Madur) Mannskiepnann lygur, og fer stundum villt, ad hun ecke kann ad hallda sijn Ord, þvi hun er sialf ecke viss um sitt Lijf.

20. Sioa, eg er hafdur hingad ad blessa, Eg blessa, og maa þvi ecke umbreita.
21. Hann sier ecke Illsku j Jacob, og athugar ecke (e) Mædu j Israel. DRottinn hans Gud er hia honum, og Kongsins (f) Lwdrar a medal þeirra.

(e) (Mædu) Mæda og erfide kallast Skurgodadyrkan j Ritningunne.

(f) (Kongsins Lwdrar) þad er Guds þeirra Kongs Instileger Lwdrar, hvoria hann befalade þeim ad giora, hvar fyrer þeir voru osigranleger j Strijde. Lwdrarner meiga og merkia Guds Ord, sem klaarlega og opennberlega kienndest hia þessu Folke.

22. Gud fœrde þa af Egyptalande, hans Hugpryde er lijka sem eins Einhyrnings,
23. Þvi eckert Fiolkinge er j Jacob, og eingenn Spaasogn j Israel. A sijnum tijma skulu Menn tala um Jacob og Israel, hvoriar Daadsemder Gud giorer.
24. Sioa þu, þad Folk skal upp standa sem eirn ungur Léon, og þad skal upp hefia sig sem eitt Leon, Pad skal ecke leggia sig fyrr enn þad upp etur Herfanged, og dreckur Blodid af þeim sem j hel eru slegner.
25. Pa sagde Balak til Balaam, Þu skallt hvorke bolva þeim nie blessa.
26. Balaam svarade og sagde til Balak, Hef eg ecke sagt þier, ad allt þad sem DRottinn seiger þad munde eg giora?
27. Balak sagde til hans, Kom þo sem sadur, eg vil leida þig til eins annars stadar, ef skie mætte, ad Gude kynne þar ad þocknast, ad þu bolvader þeim þar fyrer mig.
28. Og hann hafde hann fyst uppa Fialled Peor, sem ad horfer til Eydemerkur.
29. Og Balaam sagde til Balak Gior mier hier Sio Alltare, og faa mier Sio Uxa, og sio Hrwta.
30. Balak giorde sem Balaam sagde, og offrade einum Uxa, og einum Hrwt yfer hvoriu Alltare.

## XXIV. Capitule.

Balaam spaaer um Jacobs Stiornu, og Israels Velldesspijru.

Sem Balaam saa nu, ad þad þocknadest DRottni, ad hann blessade Israel, foor hann ecke j burtu, lijka sem sadur, epter Fiolkinge,

kinge (a), helldur snere hann sinne Asionu strax til Eydemerkur.

(a) (Fiolkinge) Hier ma merkia af, ad Balaam hefur ætijd ædur fared ad Fiolkinge, under yfervarpe Gudlegs Nafns, Enn DRottinn mætte honum ætijd, og hamlade hans Golldrum, so hann hlaut ad medtaka Guds Ord j stadenn sinna Galldra.

2. Og upp hoof sijn Augu, og sa Jsrael, hvornenn þeir lꜹu, epter sijnum Kinkvijslum, Og Guds Ande kom yfer hann,

3. Og hann tok til ad tala, og sagde, Þad seiger Balaam, Son Beors, Þad seiger sa Madur hvors Augum er upp loked,

4. Þad seiger Heyrare Gudlegra Mꜹla, sem sier opennberan þess Alls-Megtugasta, hañ sem fellur, og Augunn verda upp lokenn ꜹ.

5. O! hvorsu fogur eru þijn Landtiolld, Jacob, og þijn Hybijle, Jsrael!

6. Lijka sem Læker utbreida sig, og sem Alldingardarner vid Vötnenn, sem þau Land-tiolld, er sialfur DRottinn plantar, sem Cedrus Trie hiꜹ Vatne.

7. Þar mun renna Vatn af hans Skiolu, og hans Sꜹd skal blijfa eitt stoort Vatn, Hans Kongur skal verda hærre enn Agag, og hans Rijke skal upp hefia sig.

8. Gud leidde hann af Egyptalande, hans Hugprijde er lijka sem eins Einhyrnings, Hann mun upp svelgia Heidingiana þeir ed hann ofsækia, og j sundur melia þeirra Bein, og slꜹ þa smꜹtt med sijnum skotum.

9. Hann hefur lagt sig nidur sem eitt Leon, og sem eirn ungur Leon, Hvor vill upp reisa sig j moot honum? Blessadur er sa sem þier blessar, og bölvadur er sa sem þier Bölvar.

10. Þa vard Balak gramur og reidur uppa Balaam, og slo Höndum samann, og sagde til hans, Eg liet sækia þig, so ad þu skyllder bölva mijnum Ovinum, og siꜹ, þu hefur nu þrisvar blessad þa.

11. Far nu heim j þinn stad, Eg þeinkta mier ad veita þier heidur, enn DRottinn hefur firrt þig þeirre Æru.

12. Balaam svarade honum, Hvort talade eg ecke þetta til þinna Sendemanna, sem þu sender til mijn, og sagde?

13. Þott Balak giefe mier sitt Hws fullt af Gulle og Silfre, þa kann eg ecke ad giora j moote DRottins Orde, hvorke hid vonda, nie hid Goda, epter mijnu Hiarta, Helldur hvad DRottinn seiger mier, þad munde eg tala.

14. Og siꜹ nu, þa eg fer til mijns Folks, kom þu þa, so vil eg undervijsa þier, hvad þetta Folk mune giora þijnu Folke, a seinustum Tijmum.

15. Og hann upphoof sitt Mꜹl, og sagde, Þetta seiger Balaam, son Beor, Þad seiger sa Madur, hvors Augum upp er loked,

16. Þad seiger heyrare Gudlegra Mꜹla, og sa sem hefur Vijsdom þess Allra-Hærsta, sa sem sier opennberan þess Almꜹttuga, hann sem fellur, og Augunum er upp loked ꜹ.

17. Eg mun siꜹ hann, enn ecke nu, Eg mun skoda hann, enn ecke j nꜹnd. Þar mun upp renna ein Stiarna af Jacob, og ein Rijkes Spijra skal upp koma af Jsrael, og hann mun j sundur meria Moabitanna Hofdingia, og eydeleggia öll Börn Seths.

18. Edom mun verda hans eign, og Seir skal vera sijnum Ovinum undergiefenn, Enn Jsrael skal hafa Sigurenn.

19. Af Jacob mun sa koma ed Yfer-Drottnar, og eydeleggur þad sem epter er af Stödunum.

20. Og þa hann soa Amalechitana, upp hoof hann sitt Mꜹl, og sagde, (b) Amalech sa firste a medal Heidingia, Enn med þad sijdsta skalltu med öllu eydeleggiast.

(b) (Amalech) þeir voru þeir firstu af Heidingium, sem strijddu a mote Jsraels Börnum, Exod. 17, 8. Enn þeir urdu afmꜹder af Saul. 1 Sam. 15, 7.

21. Og sem hann soa Kenitana, hoof hann sit Mꜹl, og sagde, Rammbiggt er þitt Heimile, og þu hefur biggt þitt hreidur j biargskorum,

22. Enn þu (c) Kain, þu skalt brennast, þa Assur flytur þig fangenn burt.

(c) (Cain) Detorsio verbi pro Kini.

23. Og hann upp hoof enn sitt Mꜹl, og sagde,

sagde, Oh, hvor mun lifa þa Gud mun giøra þetta?

24. Og Skipenn af (d) Chitim skulu fordiarfa Assur og Eber, og hann mun og so alldeilis eydeleggiast.

(d) Chitim eru þeir af Europa, so sem Alexander hinn Mikle, og Romveriar, sem og so um sijder eydeløgdust, Og Spaadomurenn avijsar hier, ad oll Kongа Rijke a Jordunne skule eydast, eitt epter annad, utann Israels Lydur, sem alltijd skyllde hallbast vid Magt fyrer Christum.

25. Og Balaam biost af stad, og for þadann, og kom til sijns stadar aptur, enn Balak foor sinn Veg.

## XXV. Capitule.

Afgudadijrdkan og Hooran Israels Barna straffast hardlega.

Og Israel bio j Sittim. Og Folked tok til ad fremia * Hooraner med Dætrum þeirra Moabita, * 1 Cor. 10, 8.

2. Hvoriar * ad budu Folkenu til Offurs sinna Skwrgoda. Og Folked aat, og tilbad þeirra Skwrgod, * Opb: B: 2, 14.

3. Og Israel feste sig ved Baal Peor, þa gramdest Reide DRottins yfer Israel,

4. Og hann sagde til Mosen, Taktu alla Hofdingia Folksins, og heing þu DRottni þa upp j moote Soolunne, so ad Grimmdar Reide DRottins snuest fra Israel.

5. Og Moses sagde til Israels Domenda, Hvør drepe sitt Folk, sem sig hefur giefed til Baal Peor.

6. Og sioa, eirn Madur af Israels Bornum kom, og leidde eina Madianiska Kvinnu j bland sinna Brædra, ad aasiaanda Mose og øllum Almwganum Israelis Barna, þeir ed grietu fyrer Samkundu-Tialldbudar-Dyrum.

7. Enn er Pinehas, son Eleasar, sonar Aarons Prests, sa þad, stood hann upp fra Almwganum, og tok eitt Spiot j Hond sier,

8. Og gieck jnn j Hooru-Hwsed, epter þeim Israelis Manne, og lagde þau bæde, þann Israelis Mann, og so Kvinnuna j gegnum Lijfed. Þa stilltest su Plaaga strax, sem komenn var yfer Israels Børn.

9. Og þar fiellu j þeirre Plaagu fiorar og tuttugu Þusunder Manna.

10. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

11. Pinehas, son Eleasar, sonar Aarons Prests, hann hefur snued minne Reide fra Israels Bornum, fyrer sitt Vandlæte minna vegna, so eg ecke j minne Vandlætingu eydelegge Israels Børn.

12. Þar fyrer seigdu, Sioa, Eg gief hønum Saattmaala mijns Fridar,

13. Hann, og hans Sæde epter hann, skulu hafa þann Saattmaala til eins eylijfs Kiennemannskapar, sokum þess, ad hann vandlætte vegna sijns Guds, og forlijkte Israels Børn.

14. Enn sa Israelite sem var sleigenn med þeirre Madianiskre Kvinnu, hiet Simri, son Salu, einn Hofdinge yfer Simeonita Fødurs Hwse.

15. Enn su Madianiska Kvinna, sem og sleigenn var hiet Casbi, dotter Zur, sem var Hofdinge eirnrar Kinkvijslar þeirra Madianita.

16. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

17. Gióred skada þeim Madianitis, og slaaed þa,

18. Þvi þeir hafa giort ydur Skada med sijnum Svikum, sem þeir veittu ydur fyrer Peor, og fyrer þeirra Syster Casbi, þess Madianita Hofdingia Dotter, sem sleigenn var a Plaagunnar Deige, fyrer Peors saker, og Plaagann þar epter kom.

## XXVI. Capitule.

Israels Børn eru talinn a ny epter Bode Moses og Eleasars.

Og DROTtinn talade til Mosen, og Eleasar, Sonar Aarons Prests,

2. Reikned nidur Summu alls Almwgans Israelis Barna, fra Tuttugu aara gomlum, og þadann af elldre, epter þeirra

Fedra Hwsum, alla þa sem færer eru til Bardaga j Jsrael.

3. Og Moses og Eleasar Prestur toludu vid þa a Vollum þeirra Moabita, hia Jordan, giegnt Jericho,

4. Þeir sem voru Tuttugu aara, og þadann af elldre, so sem DROTTinn hafde boded Mose, og Jsraels Bornum, sem fared hofdu af Egyptalande.

5. Ruben Jsraelis Frumgietne Son. Þesse voru Rubens Born, Hanoch, af hvorium Hanochita Ettkvijsl kiemur. Pallu, af hvorium ad kiemur Palluita Ettkvijsl.

6. Hezron, af hvorium Hezronita Ettkvijsl kiemur. Charmi, af hvorium Charmita Ettkvijsl kiemur.

7. Þetta eru Attkvijsler fra Ruben, og þeirra tala var, Þriar og Fiorutijgu Þusunder, Sio Hundrud og Þriatijgu.

8. Enn Pallu Born voru Eliab,

9. Og Born Eliab voru Nemuel, og Dathan og Abiram. Þad er sa Dathan og Abiram, sem voru Nafnkunnuger a medal Almwgans, þeir sem settu sig upp imot Mose og Aaron, med þeim Selskap Korah, þa þeir settu sig upp imoote DROTTni.

10. Og Jordinn uppliet sinn Munn, og svelgde þa, med Korah, þa sa flocktur doo, og Elldurenn uppsvelgde Tvo Hundrud og Fimmtiju Menn, og urdu til eins Merkis.

11. Enn Born Korah dou ecke.

12. Born Simeons j þeirra Ettkvijslum voru, Nemuel, þadann er komenn Nemuelitanna Ett. Jamin, þadann er komenn Jaminita Ettkvijsl. Jachin, þar af kiemur Jachinita Ettkvijsl.

13. Serah, þadann kiemur Serahitanna Ettkvijsl. Saul, þar af er komenn Saulitanna Ettkvijsl.

14. Þesse Kinslood er komenn af Simeon, Tvær og Tuttugu Þusunder, og Tvo Hundrud.

15. Born Gads j þeirra Ettkvijslum voru, Ziphon, þar af kiemur Ziphonitanna Ettkvijsl. Haggi, þar af kiemur Haggitanna Ettkvijsl. Suni, þar af kiemur Sunitanna Ettkvijsl,

16. Osni, þar af kiemur Osnitanna Ettkvijsl. Eri, þar af er komenn Eritanna Ettkvijsl.

17. Arod, þar af er komenn Aroditanna Ettkvijsl. Ariel, þaraf er komenn Arielitanna Ettkvijsl.

18. Þetta eru Ettkvijsler Barna Gads, epter þeirra tolu, Fiorutijger Þusunder og Fimmhundrud.

19. Juda Born, Ger og Onan, hvorier bader doou j Canaans Lande.

20. Enn Juda Born j þeirra Kinkvijslum voru þesse, Sela, þar af kom Selanitanna Ettkvijsl. Perez, þar af er komenn Perezitanna Ettkvijsl. Serah, þar af er komenn Serahitanna Ettkvijsl,

21. Enn Born Perez voru, Hezron, þar af er komenn Hezronita Ettkvijsl. Hamul, þar af kiemur Hamulita Ettkvijsl.

22. Þetta eru Juda Kinkvijsler j þeirra tolu, Sex og Siotiju Þusunder, og Fim Hundrud.

23. Jsaschars Born j þeirra Kinkvijslum voru, Thola, þaraf er komenn Tholaitanna Ettkvijsl. Phua, þaraf er komenn Phuanitanna Attkvijsl.

24. Jasub, þaraf er komenn Jasubitanna Ettkvijsl. Simron, þar af kiemur Simronita Ettkvijsl.

25. Þessar eru Jsaschars Etkvijsler j sinne tolu, Fiorar og Sextijger Þusunder, og Þriu Hundrud.

26. Sebulons Born j þeirra Kinkvijslum voru, Sared, þaraf kiemur Saredita Ettkvijsl, Elon, af honum kiemur Elonita Ettkvijsl, Jahelel, þar af er komenn Jahelelita Ettkvijsl,

27. Þessar eru Ettkvijsler Sebulon, epter þeirra tolu, Sextijgu Þusunder, og Fimm Hundrud.

28. Born Josephs j þeirra Kinkvijslum voru, Manasse og Ephraim.

29. Enn Born Manasse voru, Machir, þaraf er komenn Machirita Kinkvijsl: Machir gat Gilead, þaraf er komenn Gileadita Ættkvijsl.

30. Enn þesse eru Born Gilead, Hieser, þar af er komenn Hieserita Ættkvijsl. Helek, þar af er komenn Helekita Ættkvijsl.

31. Asriel, þar af er komenn Asrielita Ættkvijsl, Sichem, þar af er komenn Sichemita Ættkvijsl.

32. Smida, þar af er komenn Smidita Ættkvijsl. Hepher, þadann er komenn Hepherita Ættkvijsl.

33. Enn Zelaphehad var Son Hepher, og hafde ongva Syne, helldur Dætur, sem hietu, Mahelah, Noa, Hagla, Milcha, Thirza.

34. Þessar eru Ættkvijsler Manasses, j sinne Tolu, Tvær og Fimmtijge Þusunder, og Siø Hundrud.

35. Ephraims Born j sijnum Kinkvijslum voru Suthelah, þar af er komenn Suthelahitanna Ættkvijsl. Becher, þar af er komenn Becherita Ættkvijsl. Thahan, þar af er komenn Thahanita Ættkvijsl.

36. Enn Born Suthelah voru, Eran, þar af er komenn Eranita Ættkvijsl.

37. Þessar eru Ephraims Barna Ætter, j þeirra Tolu, Tvær og Þriatiju Þusunder, og Fimm Hundrud. Þetta eru Born Josephs j sinne Ættkvijsl.

38. BenJamins Born j þeirra Kinkvijslum voru, Bela, þar af kiemur Belaita Ættkvijsl. Asbel, þar af kiemur Asbelita Ættkvijsl. Ahiram, þar af kiemur Ahiramitanna Ættkvijsl.

39. Supham, þar af er komenn Suphamitanna Ættkvijsl. Hupham, þar af er komenn Huphamitanna Ættkvijsl.

40. Enn Bela Born voru þeir, Ard og Naeman, þar af er komenn Arditanna og Naemitanna Ættkvijsl.

41. Þesse eru Born BenJamins j sijnum Kinsloodum, ad tolu, Fimm og Fiorutiju Þusunder, og Sex Hundrud.

42. Born Dans j þeirra Ættkvijslum voru, Suham, þar af er komenn Suhamitanna Ættkvijsl.

43. Þetta var Ætt Dans j sijnum Ættbring, og þeir voru aller samann ad tolu, Fiorar og Sextijgu Þusunder, og Fiogur Hundrud.

44. Assers Born j þeirra Ættkvijslum voru, Jemna, þar af er komenn Jemnita Ættkvijsl. Jesvi, þar af er komenn Jesvita Ættkvijsl. Bria, þar af er komenn Briitanna Ættkvijsl.

45. Enn Bria Born voru Heber, þar af er komenn Heberita Ættkvijsl. Melchiel, þar af er komenn Melchielita Ættkvijsl.

46. Og Dotter Assers hiet Sarah.

47. Þesse er Ætt Barna Assers, j sinne Tolu, Þriar og Fimmtiju Þusunder, og Fiogur Hundrud.

48. Nephthali Born j þeirra Kinkvijslum voru, Jaheziel, þar af er komenn Jahezielita Ættkvijsl. Guni, þar af er komenn Gunita Ættkvijsl.

49. Jezer, þar af er komenn Jezerita Ættkvijsl. Sillem, þar af er komenn Sillemita Ættkvijsl.

50. Þetta eru nu Kinkvijsler Nephthali, j sinne Tolu, Fimm og Fiorutiju Þusunder, og Fiogur Hundrud.

51. Þetta er Manntals Summa Israelis Barna, Sexsinnum Hundrad Þusunder, eitt Þusund, Siø Hundrud, og Þriatiju.

52. Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

53. Þu skallt j sundurskipta Landenu millum þessara, þeim til Erfdar, epter Nafnanna Tolu,

54. Þu skallt giefa þeim sem marger eru, miked ad erfa, enn foam lijted, Sierhvorium skal giefa epter þeirra Tolu.

55. Þo skal sundurskipta Landenu med Hlut-

Hlutkeste, epter Nafne Ættkvijslanna þeirra Fedra skulu þeir Arf taka,

56. Þvi þu skallt vtskipta þeirra Manna erfd epter Hlutfalle, so sem þeir eru marger og fáaer til.

57. Og þetta er Summa a Levitunum, j þeirra Ættkvijslum, Gerson, af honum er komenn Gersonita Ættkvijsl. Kahath, af honum er Kahathita Ættkvijsl. Merari, af honum er Merarita Ættkvijsl:

58. Þessar eru Levi Ættkvijsler, Libnita Ættkvijsl, Hebronita Ættkvijsl, Mahalita Ættkvijsl, Musita Ættkvijsl, Korahita Ættkvijsl. Kahath gat Amram,

59. Og Kvinna Amram hiet Jochebed, Dotter Levi, hvor honum fæddest j Egypta-Lande, og hun áatte vid Amram, Aaron og Mosen, og Mariam þeirra Syster.

60. Enn Aarone fæddest Nadab, Abihu, Eleasar, og Ithamar.

61. Enn Nadab og Abihu dou, þa þeir offrudu annarlegum Ellde fyrer DROTTni.

62. Og Summann a þeim var Þriar og Tuttugu Þusunder, allt Karlkins, Máanadar gamallt, og þadann af Elldra. Þviat þeir voru eige reiknader a millum Israels Barna, þvi þeir hofdu ongva Arftoku, a medal Israels Barna.

63. Þetta er Summann Israelis Barna, sem Moses, og Presturenn, Eleasar toldu a Moabitanna Vollum, hiáa Jordan, gagnvart Jericho.

64. Medal hvorra eingenn var af þvi Manntale, þa Moses, og Presturenn Aaron toldu Israels Born j Eydemorku Sinai.

65. Þvi DROTTinn hafde sagt til þeirra, ad þeir skylldu vissulega deya j Eydemorkenne, og þar var * eingenn epter, utann, Caleb, Son Jephunne, og Josua, Son Nuns. * 1 Cor. 10, 5.

## XXVII. Capitule.

(I) Log um Arf; (II) Josua er settur af Mose til ad vera Leidtoge Israels Folks.

I. Og Dætur Zelaphehads, Sonar Hephers, Sonar Gilead, Sonar Machers, Sonar Manasse, a medal Kinkvijsla Manasses, Sonar Josephs, med Nafne, Mahela, Noa, Hagla, Milcha, og Thirza,

2. Komu og geingu framm fyrer Mosen, og Prestenn Eleasar, og til Hofuds-Mannanna, og til alls Almwogans, utann fyrer Samkundunnar Tialldbudar Dyrum, og sogdu,

3. Fader vor doo j Eydemorku, og var ecke j Selskap þess Almwoga sem sig reiste j moote DROTTni, j Flocke Korah, helldur andadest hann j Synd sinne, og áatte ongva Sonu,

4. Þvi skal þad vors Fodurs Nafn under lok lijda j hans Kinkvijsl, þo hann hafe ongvann Son áatt? Gief oss og nockra Eign a medal vorra Fodur-brædra.

5. Moses flutte Máal þeirra fyrer Drottinn,

6. Og DROTtinn sagde til hans,

7. Zelaphehads Dætur hafa riett talad, þu skallt giefa þeim Erfda Gots a medal þeirra Fodurbrædra, og þu skallt láata þeirra Fodur Arf koma til þeirra.

8. Og seigdu til Israels Barna, þegar nockur deyr og hefur ecke Syne epter, þa skulud þier vijkia hans Arfe til hans Dætra.

9. Enn hafe hann ongva Dotter, þa skulud þier giefa hans Brædrum þann Arf.

10. Eige hann ecke Brædur, þa skulud þier giefa þann Arf hans Fodur Brædrum.

11. Hafe hann ecke Fodurbrædur, þa skulud þier giefa hañ hans nærstu Ættingium sem honum eru skillder j hans Ætt, so hann eignest hann. Þetta skal vera Logmáal og Riettur Israels Barna, so sem DRottinn hefur bifalad Mose.

II. 12. Og DRottinn sagde til Mosen, Gack þu upp a þetta Fiall Abarim, og skoda Landed, þad eg mun giefa Israels Bornum.

13. Og þa þu hefur sied þad, þa skalltu safnast til þijns Folks, lijka sem þinn Broder Aaron er (þangad) safnadur. 14. So-

14. Sokum þess, ad þid vorud mijnum Ordum ohlyduger j þeirre Eydemorku Zin, þann tijma ad Almugenn þrætade þar, þa þid skylldud helga mig fyrer þeim, fyrer Vatned, þad er Motmælis Vatned ÿ Kades, j Eydemorku Zin.

15. Og Moses talade vid DRottinn, og sagde,

16. DRottinn, sem er Gud Andanna alls Holldz, hann villie setia eirn Mann yfer þennann Almwga,

17. Þann sem kann ad ganga vt og jnn fyrer þeim, og leida þa vt og inn, so ad DROTTINS Sofnudur sie ecke lijka sem Sauder þeir ed ongvann Hirder hafa.

18. Og DRottinn sagde til Mosen, Tak þu Josua, Son Nuns, til þijn, sem er sa Mañ, j hvorium Andenn er, og legg þijnar Hendur yfer hann,

19. Og skicka hann fyrer Prestenn Eleasar og fyrer allann Almwgann, og gief honum bijfalning fyrer þeirra Augum,

20. Og legg þijna Dyrd yfer hann, so ad allur Almwge Israels Barna veite honum Hlydne.

21. Og hann skal ganga framm fyrer Prestenn Eleasar, hann skal þiggia Rad af honum epter (a) Urims vijsu fyrer DRottne. Epter hans Munne skal bæde hann, og oll Israels Born med honum ferdast vt og jnn, og allur Almwgenn.

(a) (Urim) þad er þad Liosed a Hofudkiennemannsins Briostskilde, Exodi 28, 30. Þar af seigia sumer, þa Gud hafde andsvarad og giefid Ja til Prestsins Spurningar, Þa hafe þetta Lios Geisla af sier giefed. Þetta sama hafa og Kongarner tijdkad, þegar þeir villdu spyria Gud Rada, sem lesa ma 1 Reg. 28, 6. DRottinn svarade Saul, hvorke fyrer Draum nie Lios, og j þeim 30, 7.

22. Moses giorde sem DRottinn hafde boded honum, og tok Josua, og skickade hann fyrer Prestenn Eleasar, og fyrer allann Almwgann,

23. Og lagde sijna Hond yfer hann, og baud honum so sem DRottinn hafde talad vid Mosen.

# XXVIII. Capitule.

Log um Jmisleg Offur eru Jtrekud.

Og DROTTinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Biod þu Israels Bornum, og seig þu til þeirra, Fornfæring af mijnu Braude, sem er eitt Offur til eins sæts Ilms, skulud þier hallda a sijnum Tijma, ad þier offred mier þvi. Og seig til þeirra.

3. Þetta eru þær Forner sem þier skulud offra DRottni, Aars gomul Lomb sem eru oan Lyta, hvorn Dag Tvo, til eins daglegs Brenneoffurs,

4. Eitt Lamb ad Morgne, og þad annad a moote Kvollde,

5. Þar til tijunda part af Epha Hveitemiols, til eins Matoffurs, meingad med Oleo þad sem skieked er, eirn fiorda part af Hin.

6. Þad er daglegt Brenneoffur, þad sem þier færdud a Sinai Fialle, til eins Sæts Ilms, eirn Elldur fyrer DRottni.

7. Þar til (a) Drickoffrid, jaa, til eins Lambs, fiorda part af Hin, Mann skal offra Drickoffursins Vijne j Helgedomenum, fyrer DRottni.

(a) Drickiaroffursins Vijn, er hier Sicera, þad er þad sem Madur kann ad verda druckenn af, þad sem klart er, og ecke blandad, helldur sterkt og kroptugt, þvi þad hreina Guds Ord giorer Saalernar riettelega drucknar.

8. Þad annad Lambed skalltu til giora j moot Aptne, lijka sem Matoffur um Morgunenn, og so sem Drickiar-Offred, til Offurs Sætleiks Ilms fyrer DRottni.

9. Enn * a Sabbaths-Deige tvo Lomb aars gomul oan lyta, og Tvo tijunda parta Hveitemiols, blandad med Oleo til eins Mat-Offurs, og sitt Drickiaroffur. *Matth. 12, 5.

10. Þad er sierhvors Sabbathsdags Brenneoffur, fyrer utan þad daglega Brenneoffur, med sijnu Dryckiaroffre.

11. Enn þann firsta Dag j ydrum Maanudum, skulud þier fornfæra DRottni eitt

Brenneoffur, tvo unga Uxa, eirn Hrwt, sio Lomb Arsgomul oan lyta.

12. Og so þria tijunda parta Hveitemiols, til Matoffurs, blandad med Oleo, til hvors Uxa, og tvo tijunda parta Hveitemiols til Matoffurs, meingad med Oleo, til hvors eins Hrwts,

13. Og so einn tijunda part Hveitemiols til Matoffurs, blandad med Oleo, til hvors Lambs, Pad er Brenneoffur sætleiks Ilms fyrer DRottni.

14. Og þeirra Drickiaroffur skal vera, ein half Hin Vijns, til Uxans, og enn þridie partur af Hin, til Hrwtsins, og enn fiorde partur Hin, til Lambsins. Pad er Brenneoffred a sierhvorium Moanude um Aared.

15. Hier ad auk skal Mann tilgiora DRottni eirn Kiarnhafur til Syndaoffurs, auk þess daglega Brenneoffurs, med sijnu Drickiaroffre.

16. Enn a þeim fiortanda Deige hins firsta Moanadar eru Poaskar DRottins.

17. Og a fimmtanda Deige a þeim sama Moanade er Hoatijd, Menn skulu eta Osyrt Braud j sio Daga.

18. Sa firste Dagur skal kallast Heilagur, ad þier skulud koma til samans, Pier skulud eckert erfidis Verk fremia j þessa Daga.

19. Og þier skulud offra DRottni Brenneoffre, tvo unga Uxa, eirn Hrwt, sio Lomb oars gomul lytalaus.

20. Med þeirra Matoffre, þremur tijundа portum Hveitemiols, blondudum med Oleo, til sierhvors Uxa, og tvo tijunda parta, til Hrwtsins,

21. Og so eirn tijunda part, til hvors Lambs af sio.

22. So og eirn Geithafur til Syndaoffurs, til Forlijkunar fyrer ydur,

23. Detta skulud þier giora a Morgna, ad auk þess Brenneoffurs, sem er eitt daglegt Brenneoffur.

24. Epter þessum hætte skulud þier hvorn Dag, þa sio Daga j samt, offra Braude, til eins Offurs sæts Ilms fyrer DRottni, fyrer utan þad daglega Brenneoffur, og Drickiaroffur.

25. Og sa siounde Dagur skal kallast Heilagur hioa ydur, ad þier komed til samans, þier skulud ongva Erfidis Vinnu vinna a þeim Deige.

26. Og sa Dagur Firsta Avaxtar, þa þier offred DRottni þad Nya Matoffur, þa ydar Vikur eru ute, hann skal kallast Heilagur, so þier skulud koma til samans, þier skulud ongva Erfidis Vinnu fremia a honum.

27. Og þier skulud Fornfæra DRottni Brenneoffur til eins sæts Ilms, tvo Ungneyte, eirn Hrut, sio Lomb oarsgomul,

28. Med þeirra Matoffre, þremur Tijundum Hveitemiols, meingudum med Oleo, til hvors Nauts, tveimur Tijundum til Hrutsins.

29. Og so eirne Tijund til hvors Lambs, af þeim sio Lombum,

30. Og eirn Geithafur, til eirnrar Forlijkunar fyrer ydur.

31. Petta skulud þier giora auk þess daglega Brenneoffurs, med sijnu Matoffre, Petta skal vera oan Lyta, þar med þeirra Drickiaroffur.

## XXIX. Capitule.

**Um Offur a Imislegum Hoatijdum.**

Og sa firste Dagur j þeim siounda Moanade skal kallast Heilagur hioa ydur, so þier skulud koma til samans, ongvann Erfidis giorning skulud þier giora a honum, Pad er ydar Ludra dagur.

2. Og þier skulud fæfa Brenneforner DRottni til eins sæts Ilms, eirn Ungann Uxa, eirn Hrwt, sio oarsgomul Lomb, oan Lyta.

3. Par til þeirra Matoffur, þria tijunda parta Hveitemiols, meingada med Oleo, til Uxans, tvo Tijunda parta til Hrwtsins,

4. Og eirn Tijunda part til hvors Lambs af þeim sio Lombum,

5. Og

5. Og eirn Geithafur til Syndaoffurs, til eirnrar Forlijkunar fyrer ydur,
6. Fyrer utan þess Meanadar Brenneoffur og Matoffur, og fyrer utan þad daglega Brenneoffur med sijnu Matoffre, og med þeirra Drickiaroffre, epter þeirra skickan, til eins sæts Jlms, Pad er DRottni eitt Offur.
7. Sa tijunde Dagur j þeim siounda Meanade skal og Helgur kallast hiaa ydur, ad þier skulud koma til samans, Og þier skulud þiaa ydar Lijkame, og eckert Erfide þa fremia,
8. Enn þier skulud offra DRottni Brennefoorn til eins sæts Jlms, Eitt ungt Naut, eirn Hrvot, sio Lomb aars gomul oan Lyta.
9. Med þeirra Matoffre, þria tijunda parta Hveitemiols, meingada med Oleo, til Nautsins, tvo tijunda parta til Hrvotsins,
10. Og so einn Tijunda part, til hvors af þeim sio Lombum.
11. Par til eirn Geithafur, til Syndaoffurs, fyrer utan Forlijkunar Syndaoffur, og þad daglega Brenneoffur, med sijnu Mat-Offre, og med þeirra Drickiaroffre.
12. Sa fimmtande Dagur j þeim siounda Meanude skal kallast Helgur hiaa ydur, ad þier skulud koma til samans, Þier skulud eckert þrælkunar Erfide fremia a þann Dag, og þier skulud hallda Hoatijd DRottni j sio Daga.
13. Og þier skulud offra DRottni Brenneoffre til sætlegs offurs fyrer DRottni, Þrettan unga Uxa, tvo Hrvota, fiortan Lomb aars gomul oan lyta,
14. Med þeirra Matoffre, þremur tijundu portum Hveitemiols, meingudum med Oleo, til hvors Uxa af þeim þrettan, og tvo Tijunda parta, til hvors Hrvots af þeim tveimur.
15. Og eirn Tijunda part, til hvors Lambs af þeim fiortan.
16. Par til eirn Geithafur, til Syndaoffurs, ad auk þess daglega Brenneoffurs, med sijnu Matoffre, og med þeirra Drickiar-Offre.
17. Annann Dagenn tolf unga Uxa, tvo Hrvota, fiortan Lomb aars gomul oan lyta,
18. Med þeirra Matoffre og Drickiar-Offre til Uxanna, til Hrvotanna, og til Lambanna, j þeirra tolu, epter þvi sem vijsa er.
19. Par til eirn Geithafur, til Synda-Offurs, ad auk þess daglega Brenneoffurs, med sijnu Matoffre, og med þeirra Drickiar-Offre.
20. A þeim þridia Deige ellefu Uxa, tvo Hrvota, fiortan Lomb aarsgomul, fyrer utann Lyte,
21. Med þeirra Matoffre, og Drickiar-Offre, til Uxanna, til Hrvotanna, og til Lambanna, j sinne tolu, epter þvi sem vijsa er.
22. Par til eirn Hafur til Syndaoffurs, ad auk þess daglega Brenneoffurs, med sijnu Matoffre og Drickiaroffre.
23. A fiorda Deige, tiju Uxa, tvo Hrvota, fiortan Lomb aars gomul oan Lyta,
24. Med þeirra Matoffre og Drickiar-Offre, til Uxanna, og Hrvotanna, og til Lambanna, j þeirra tolu, epter vijsunne.
25. Par til eirn Geithafur, til Synda-Offurs, fyrer utan þad daglega Brenneoffur, med sijnu Matoffre og Drickiaroffre.
26. A Fimmta Deige, Niju Uxa, tvo Hrvota, fiortan Lomb aars gomul oan Lyta,
27. Med þeirra Matoffre og Drickiar-Offre, til Uxanna, til Hrvotanna, og til Lambanna, j þeirra tolu, epter sidveniunne.
28. Par til eirn Geithafur til Syndaoffurs, fyrer utan þad daglega Brenneoffur, med sijnu Matoffre og Drickiaroffre
29. A siotta Deige, aatta Uxa, tvo Hrvota, fiortan Lomb aarsgomul oan lyta,
30. Med þeirra Matoffre og Drickiar-offre, til Uxanna, Hrvotanna, og til Lambanna, i þeirra tolu, epter sidveniu,
31. Par til eirn Hafur til Syndaoffurs, ad auk þeirrar Daglegrar Brennefoornar, med sijnu Matoffre, og sijnu Dryckiaroffre.
32. A Siounda Deige, Sio Uxa, tvo Hrvota, fiortan aars gomul Lomb oan Lyta,

33. Med

33. Med þeirra Matoffre og Drickiar-Offre, til Uxanna, Hrwtanna, og til Lambanna, j þeirra tolu, epter sidveniu.

34. Þar til eirn Geithafur, til Syndaoffurs, fyrer utann þa Daglegu Brennefoorn, med sijnu Matoffre, og Drickiaroffre.

35. Hinn attunde skal vera (a) Samkundudagur, þier skulud øngva Prælkunar Vinnu a hønum fremia.

(a) (Ezereth) Samkunda; svo sem þeir er saman safnast, og inne lykiast, æ einum Kyrkiu Garde. Ut liceat audire Maledictiones, Deut. 28, 15.

36. Og þier skulud offra Brennefórner til eins Sætluncktande-Offurs fyrer DRottni, eirn Uxa, eirn Hrwt, sio Lomb ærs. gomul ґan Lyta,

37. Med þeirra Drickiaroffre, til Uxanna, Hrwtanna, og til Lambanna, j þeirra tolu, epter sidveniunne.

38. Þar til eirn Geithafur til Syndaoffurs fyrer utan þa daglegu Brenneforn, med sijnu Matoffre og Drickiaroffre.

39. Slijkt skulud þier giora DRottni a ydrum Hatijdum, fyrer utan þad þier hafed lofad, og af frialsum Vilia giefed, til Brenneoffurs, Matoffurs, Drickiaroffurs og Packaroffurs.

XXX. Cap. 1. Og Moses sagde Israels Bornum allt þetta, sem DRottinn hafde boded hønum.

# XXX. Capitule.

Logmæl um Heite sem ætlu ad halldast, og þau er ecke mættu halldast.

2. Og Moses talade vid Hofdingia yfer Ættkvijslum Israelis Barna, og sagde. Þetta er þad sem DRottinn hefur boded.

3. Ef nockur Madur giører eitt Heit fyrer DRottni, eda sver eirn Eid, ad hann Heitbindur sijna Sꝍal, Hann skal ecke bregda sijn Ord, helldur giora allt so sem þad framm gieck af hans Munne.

4. Þegar ein Kvennmans Persona giorer DRottni nockud Heit, og hun skulldbindur sig, a medan hun er j sijns Fodurs Hwse, j sijnum Ungdome,

5. Og hennar Heit og Lofan, sem hun giører yfer (a) sinne Sꝍal, kiemur fyrer hennar Fodur, og hann þeiger þar vid, þa gillder oll hennar Lofan, og so oll hennar Forplicktun, sem hun hefur giort yfer sinne Sꝍal.

(a) (Sinne Sꝍal) þad er, ef hun Skulldbatt sia til ad fasta, edur nockud ad giora med sijnum Lijkama, Ellde til Þionustu, þviad Sꝍal merkir hier svo miked sem lifande Lijkama, so sem þad tijdkast allstadar j Ritningunne.

6. Enn ef hennar Fader fyrerbydur henne þad, a þeim Deige sem hann þad heyrer, þa gillder hvorke Heited nie su Forplicktunenn, med hvorre hun hefur Heit-bunded sig yfer sinne Sꝍal, og Drottinn mun vera henne Naadugur, first ad hennar Fader stod þar j moote.

7. Enn eige hun Mann, og hun hefur nockud Heit a sier, eda falle af hennar vorum nockur Heitlosun yfer hennar Sꝍal,

8. Og hennar Madur heyrde þad, og þeiger um þad a þeim sama Deige, þa gillder hennar Lofan og Heitstreinging, sem hun hefur plicktad sig yfer sinne Sꝍal.

9. Enn stande hennar Madur þar jmoot, þann sama Dag sem hann heyrer þad, þa er hennar Heit laust, sem hun hefur a sier, og su forplicktun sem framm er geingenn af hennar Vorum yfer hennar Sꝍal, og Drottinn mun vera henne naadugur.

10. Enn hvoriu ein Eckia heiter, eda su fra Manne er skilenn, og forplicktar sijna Sꝍal med, þad skal hun hallda.

11. Enn ef hun hiet, eda forplicktade sig yfer sinne Sꝍal, med einum Eide, þa hun var j sijns Manns Hwse,

12. Og Hwsbondenn heyrer þad, og þeiger yfer þvi, og stendur þar ecke jmot, þa skal þad allt Heit halldast, og þad allt sem hun hefur forplicktad sig yfer sinne Sꝍal.

13. Enn tale Hwsbondenn þa j moot, a sama Deige sem hann þad heyrer, þa duger

þad ecke sem framm er geinged af hennar Vornm, sem þvi lofade, edur Heitbatt sig yfer sijna Saal, þvi Hwsbondenn hefur rofed þad, og DROTTinn skal vera þeim naadugur.

14. Og oll Heit og alla Eida sem giorast Lijkamanum til Pijnaningar, maa Hwsbondenn stadfesta, edur rivfa, j soddann maata,

15. Nær hann þeiger þar vid, fra einum Deige til annars, þa stadfester hann oll þau Heit og forplicktaner sem Mann hefur a sier, þar fyrer, ad hann þagde a þeim Deige þa hann þad heyrde.

16. Enn riwfe hann þad þar epter, sem hann hefur þad heyrt, þa skal hann bera Misgiorningenn.

17. Þetta eru þær Skickaner, sem Drottinn baud Mose, millum Manns og Kvinnu, millum Fodur og Dottur, a medan þad hun er enn Jungfrw, j sijns Fodurs Hwse.

## XXXI. Capitule.

Jsraels Born vinna Sigur yfer Madianitunum, og lia mikla Herfaange.

Og DROTTINN talade vid Mosen og sagde,

2. Hefn þu Jsraels Barna aa Madianitum, so þu meiger þar epter safnast til þijns Folks.

3. Þa talade Moses vid Folked og sagde, Bwed Folk til Bardaga a medal ydar, jmote Madianitum, so þeir meige hefna DRottins a Madianitum.

4. Eitt Þusund af sierhvorre Ættkvijsl, so ad þier wtsended j þennann Bardaga af ollum Jsraels Kinkvijslum.

5. Og þeir wtvoldu af Þusundum Jsraels eitt Þusund af hvorium Kinþætte, Tolf Þusunder Manna Vopnada.

6. Og Moses wtsende þa j Bardaga, med Pinehas, Syne Eleasar Prests, og þau heilogu Klædenn, og þa hvellande Lwdra j hans Her de.

7. Og þeir færdu þennann Her a mote Madianitum, so sem DROTTinn hafde boded Mose. Og þeir sloou jhel allt Karlkins,

8. So og slou þeir þa Madianita Konga jhel, med þeirra jhelslegnu, sem voru, Evi, Rekem, Sur, Hur, og Reba, þessa Fimm Madianita Konga, þeir slou og Balaam Son Beors jhel med Sverde.

9. Og Jsraels Born toku Madianita Kvinnur, og þeirra Born, ad Herfaange, og þeir ræntu ollum þeirra Fienade, og ollum þeirra Bwhlutum, og ollu þeirra Gotse.

10. Og þeir uppbrenndu med Ellde alla þeirra Stade, sem þeir biuggu j, og oll þeirra Slot.

11. Og þeir toku allt Herfaanged, og allt þad til var ad taka, bæde Menn og Fie,

12. Og færdu þad til Mosen, og til Prestsins Eleasar, og til Almwgans Jsraelis Barna, sem er, þa herteknu, þann tekna Fienad, og þad rænta Gots j Herbwdunum, a Moabitanna Vollum, sem liggia hiaa Jordan, giegnt Jericho.

13. Og Moses og Presturenn Eleasar, og aller Hofdingiar Almwgans, geingu wt j mote þeim, wt fyrer Herbwdernar.

14. Og Moses vard reidur Hershofdingiunum þess sama Hers, bæde þeim sem setter voru yfer Þusund, og Hundrad, og komner voru fra þessum Hernade og Bardaga,

15. Og sagde til þeirra, þvi gaafud þier Lijf ollum Kvinnunum?

16. Siaa, hafa ecke þessar enu somu fraa snwed Jsraelis Bornum, epter Balaams Raade, ad þeir syndgudust jmote DROttni, yfer Peor, og þar kom ein Plaaga yfer Almwgann DROTTins,

17. So slaaed nu allt Karlkins jhel a medal þeirra Barna, og allar þær Konur sem samræde hafa aatt vid Karlmenn.

18. Enn laated oll Born, sem Kvennkins eru, lifa fyrer ydur, og allar ospilltar Meyar, sem ecke hafa leiged hiaa Karlmonnum.

19. Og legred ydur utann Herbwda j Sio Daga, aller þeir sem Mann hafa jhel sleiged,

eda komed hafa vid neckud Lijk, ad þier loatid ydur hreinsa, a þeim Pridia og Siounda Deige, med þeim sem þier hafed hertekid,

20. Og allann Klædnad, oll Verkfære af Skinne, og allt þad sem giort er af Geita Skinnum, og alls hvattud Triekier skulud þier hreinsa.

21. Og Presturenn Eleasar sagde til Strijds-Folksins, sem j Bardaganum hafde vered. Þetta er Logmoaled sem DROTTinn hefur bifalad Mose,

22. Gull, Silfur, Kopar, Joarn, Tin og Bly, og allt þad sem þoler Elld, skulud þier loata ganga j giegnum Elld, og hreinsa þad, so ad þad sie hreinsad med oadreifingar Vatne,

23. Enn allt þad sem ecke þoler Elld, þad skulud þier loata ganga j giegnum Vatn,

24. Og þier skulud þvo ydar Klæde a þann Siounda Dag, so erud þier hreiner, og epter þad skulud þier koma j Herbvodernar.

25. Og DROTTinn talade vid Mosen og sagde,

26. Reikna Summu a Herfoange þeirra Hertekna, bæde af Monnum og Fienade, þu og Presturenn Eleasar, og þeir yppurstu Fedur fyrer Almvoganum,

27 Og gief þeim Helftena þaraf sem fooru j Strijded og bordust, og annann helming Almvoganum,

28. Og þu skallt upplypta fyrer DROttni af Strijds-Monnum, sem voru vtfarner j Strijded, ioa eirnre Soal af Fimmhundrudum, bæde af Monnum og Nautum, Osnum og Saudum,

29. Af þeirra Helminge skalltu þad taka, og afhenda Prestenum Eleasar þad, Drottni til eirnrar Upplyptingar.

30. Enn af þeim Helminge sem Israels Bornum til kiemur, skalltu taka þann Fimmtugasta Part, bæde af Monnum og Nautum, af Osnum og Saudum, og af ollu Kvikfie, og afhenda þad Levitunum, þeim sem vardveita Tialldbvod DROTTINS.

31. Moses og Presturenn Eleasar giordu sem DROTtinn hafde boded Mose.

32. Og Herfoanged sem epter var, sem þad Strijds-Folked hafde feinged til bijtis, var Sex Hundrud Þusund, og Siotijge, og Fimm Þusund Sauda,

33. Og Siotijge og Tvo Þusund Uxa.

34. Eitt og Sextiju Þusund Asna.

35. Og þær Kvennsvipter sem ecke hofdu Mann kiennt, og eige leiged hioa Monnum, Tolf og Tuttugu Þusund Soaler.

36. Enn helftenn sem þeim tilheyrde, er j Strijdenu hofdu vered, var Þriu Hundrud Þusund, og Seytian og Tuttugu Þusunder, og Fimmhundrud Sauda,

37. Þar af fieck DRottinn sex hundrud, fimm og siotiju Saude,

38. Item, sextan og tuttugu Þusund Uxa, Þar af fieck DRottinn tvo og siotijge.

39. Item, Þriatijge Þusund, og Fimmhundrud Asna, Þar af fieck DRottinn sextijgu og eirn.

40. Item, Manneskna Soaler, sextan Þusunder, Þar af fieck DRottinn tolf og tuttugu.

41. Og Moses afhendte Prestenum Eleasar þetta DRottins Upplyptingaroffur,

42. Sem DRottinn hafde bifalad honum.

43. Enn soa annar Helmingur, sem Moses skipte a millum Israelis Barna, fraa Strijdsfolkenu, sem var soa Helmingur sem Almvoganum fiell til, voru þriuhundrud Þusunda, seytian og tuttugu Þusunder, og fimm hundrud Sauder,

44. Sextan og tuttugu Þusunder Uxa,

45. Þriatijge Þusunder, og fimmhundrud Asna,

46. Og Manneskiur sextan Þusunder.

47. Og Moses tok af þeirre Helft Israelis, eitt af hvorium fimmtijgu, bæde af Monnum og Fienade, og fieck þad Levitunum, sem toku vara uppa Tialldbvod DRottins, sem DRottinn hafde bifalad Mose.

48. Og Hershofdingiarner yfer Þusund, og

og yfer Hundrad, geingu framm fyrer Mosen, og sogdu til hans,

49. Þijner Þienarar hafa teked Manntal alls þessa Strijds-Folks, sem var under vorum Hondum, og þar vantade ecke eirn.

50. Þar fyrer fleinkium vier DRottni af þvi sem hvor af oss hefur funded, af Gullgersemum, Kedium, Armspaungum, Hringum, Eyrnahringum, og Smijdum, til Forlijkunar fyrer vorar Soaler, fyrer DRottni.

51. Og Moses og Presturenn Eleasar medtoku af þeim þad sama Gull, j allshꝍattudum Gersemum.

52. Og allt Gull til Upplyptingaroffurs, sem þeir upplyptu fyrer DRottni, var sextan Þusund, og sio Hundrud, og fimmtige Siklar, af Hershofdingiunum yfer Þusund og Hundrad,

53. Þvi Strijdsfolked hafde rænt hvor fyrer sig.

54. Og Moses og Presturenn Eleasar medtoku þetta Gull, af Hofudsmonnum yfer Þusund og Hundrad, og bꝍaru þad j Samkundu Tialldbꝍudena, Israels Bornum til Minningar, fyrer DRottni.

## XXXII. Capitule.

Nockrer af Israels Bornum bidia um og fa þad Land, sem lꝍa þessu megin Jordanar j Kongarijkium Sihons og Ogs.

Born Rubens, og Born Gads hofdu miog mikla mergd Kvikfiꝍar, og sꝍau ad Landed Jaeser og Gilead var haglegt fyrer Kvikfie,

2. Og þeir komu og sogdu til Mosen og Prestsins Eleasar, og til Hofudsmanna Almugans,

3. Þad Land Athroth, Dibon, Jaeser, Nimra, Hesbon, Eleale, Seban, Nebo og Beon,

4. Sem DRottinn hefur fleiged fyrer Israels Almꝍuga, er hagkꝍæmt fyrer Kvikfie, og vier þijner Þienarar hofum Kvikfie.

5. Og þeir sogdu enn framar, ef vier hofum funded Nꝍad fyrer þier, þa gief þijnum Þienurum þad Land til Eignar, So vilium vier ecke fara yfer Jordan.

6. Moses sagde til þeirra, Skulu þa ydar Brædur draga j Strijd, og þier villed blijfa hier?

7. Þvi snued þier Hiortum Israels Barna, so þeir drage ecke hier yfer um, j þad Land sem DRottinn mun giefa þeim?

8. So giordu og ydar Fedur, þa eg utsende þa af Kades Barnea, ad skoda Landed.

9. Og sem þeir komu upp ad Læknum Eskol, og sꝍau Landed, þa frasneru þeir Hiortum Israels Barna, so þeir villdu ecke fara j Landed, þad sem DRottinn villde giefa þeim.

10. Og DRottins Reide gramdest a þeim tijma, og hann soor, og sagde.

11. Þesse Lydur, sem wt er farenn af Egyptalande, Tvituger Menn, og þadan af elldre, skulu ecke sioa þad Land sem eg hefe svared Abraham, Isaac og Jacob, sokum þess, ad þeir hafa ecke trulega eptersilgt mier,

12. Ad frateknum Caleb, Syne Jephunne, Kenesita, og Josua, Syne Nun, þvi þeir hafa trulega epter filgt DRottni.

13. Þa gramdest Guds Reide Israel, so hann liet þa fara aptur og framm um Eydemorku j fiorutiju oar, so leinge sem þad Kin foreyddest, sem jlla giorde fyrer DRottni.

14. Og sioaed, þier erud upp geingner j ydra Fedra stad, so ad þeir Syndugu verde þess fleyre, og þier gioꝛed enn nu Reide og Grimmd DRottins stærre j giegn Israel,

15. Þvi ef þier snued ydur fra honum, þa mun hann enn leingur loata þa vanka j Eydemorkenne, Og med þessu fordiarfed þier allt þetta Folk.

16. Þa geingu þeir nær, og sogdu, Vier vilium ecke byggia her nema Fie-hwꝍs handa voru Kvikfie, og Borger fyrer vor Born.

17. Enn vier vilium vopnast fremst j fylkingum fyrer Israels Bornum, þar til vier færum þa til þeirra Stada. Vor Born skulu

vera j þeim sterku Borgum, sokum Innbyg- giara Landsins.

18. Eige vilium vier fara heim aptur, fyrr enn Israels Born hafa innteked sierhvør sinn Arf.

19. Þvi vier vilium ecke taka Arf med þeim hinumeigenn Jordanar, Helldur skal vor Arfur falleun vera þessumeigenn Jordanar, j moot Austre.

20. Moses sagde til þeirra, Ef þier vilied þetta giora, ad þier vilied Herklæda ydur til Strijds, fyrer DRottni,

21. Þa fared yfer Jordan, fyrer DRottni, hvør ydar sem Herklæddur er, og medal ydar, þar til ad hann rekur sijna Ovine fra sinne Augsion,

22. Og Landed er orded undergiefed fyrer DRottni, Epter þad skulud þier snua aptur, og vera kvitter fyrer DRottni, og fyrer Israel, Og so skulud þier hafa þetta Land til Eignar, fyrer DRottni.

23. Enn vilied þier ecke so giora, Sia, þa syndgest þier j moote DRottni, og þier skulud verda varer vid ydar Synd, þa hun finnur ydur.

24. So bygged nu Borger fyrer ydar Born, og Fiaar-Hws fyrer ydar Kvikfie, og giored sem þier hafed sagt.

25. Enn Born Gads og Born Rubens søgdu til Mosen, Þijner Þienarar skulu giora sem minn Herra hefur bifalad.

26. Vor Born, Kvinnur, Bwshluter, og allt vort Kvikfie skal vera j Stødum Gilead,

27. Enn vier, þijner Þienarar, vilium aller Tyader til Bardaga fara j Strijd, fyrer DRottni, sem minn Herra hefur sagt.

28. So baud Mose þeirra vegna Prestenum Eleasar, Og Josua, Syne Nuns, og þeim ypperstum Fedrum Israelis Barna Ættar,

29. Og sagde til þeirra, Þa Born Gads og Born Ruben ferdast med ydur yfer Jordan, aller Herklædder til Strijds fyrer DRottni, og Landed er ydur undergiefed orded, þa giefed þeim þad Land Gilead til eignar.

30. Enn fare þeir ecke Herklædder med ydur, þa skulu þeir taka Arf med ydur j Canaans Lande.

31. Born Gads og Born Rubens svorudu og sogdu, So sem DRottinn hefur talad til þinna Þienara, so vilium vier giora,

32. Vier vilium fara Herklædder fyrer DRottni j þad Land Canaan, og eignast vort Erfda gots, þessumeigenn Jordanar.

33. So gaf Moses Bornum Gads, og Bornum Rubens, og hꜳlfre ætt Manasse, sonar Josephs, Rijke Sihons, Kongs Amorita, og Rijke Ogs, Kongs af Basan, Landed med Stodunum, med øllum Landsꜳlfum, allt umhverfis.

34. So biggdu Syner Gads Dibon, Atharoth, Aroer,

35. Atroth, Sophan, Jaeser, Jegabeha,

36. Bethnimra, og Betharan sterkar Borger, og Saudahws.

37. Enn Born Rubens biggdu Hesbon, Eleale, Kiriathaim,

38. Nebo, Baal, Meon, og umskiptu Nøfnunum, og Sibama, og þeir gꜳfu þeim Stodum Nofn sem þeir biggdu.

39. Og Born Machir, Sonar Manasse, geingu inn j Gilead, og unnu hana, og wtdrifu þa Amoreos sem þarinne voru,

40. Þa gaf Moses Machir, Syne Manasses, Gilead, og hann bio þar.

41. Enn Jair, Son Manasses, gieck burt og vann þeirra sinꜳ Borger, og kallade þær Havoth Jair,

42. Nobah gieck burt og vann Knath, og hennar Dætur, og kallade hana Nobah, epter sijnu Nafne.

## XXXIII. Capitule.

Um Ferder Israels Barna fra Egyptalande til Jordanar.

Þetta eru þær Ferder sem Israelis Born høfdu, þeir sem wtforu af Egyptalande, epter þeirra Her, fyrer Mosen og Aaron.

2. Og

2. Og Moses skrifade upp þeirra Ferd, hvornenn þeir ferduduſt, epter bifalningu DRottins, og þetta eru þær Ferder sem þeir reistu.
3. Þeir ferduduſt vt fra Raemses, þann Fimmtanda Dag j þeim Firsta Manade, annann Dag Paaska, fyrer eina upprietta Hond, ad asiaondum ollum Egyptskum.
4. Og þa jordudu þeir Egyptsku sijna Frumgietnu, sem DRottinn hafde deydt a medal þeirra, þvi DRottinn hafde hvad Dom a þeirra Afgudum.
5. Og þa þeir ferduduſt fra Raemses, settu þeir sijnar Herbuder j Suchoth.
6. Og þeir ferduduſt vt fra Suchoth, og settu sijnar Herbuder j Etham, sem liggur ytst j Eydemorkenne.
7. Þeir fooru vt fra Etham, og voru j þeim Dalnum Hahiroth, sem liggur giegnt BaalZephon, og settu Herbuder giegnt Migdol.
8. Þeir foru fra Hahiroth, og geingu midt j giegnum Hafed, burt j Eydemorkena, og ferduduſt þriggia Daga Reisu j Eydemorkena Etham, og settu Herbuder j Marah.
9. Þeir foru fra Marah, og komu til Elim, þar voru tolf Vatsbrunnar, og siotiju Palmvidar Trie, og þar settu þeir Herbuder.
10. Þeir foru fra Elim, og reistu Herbuder hiaa þvi Rauda Hafe.
11. Og þeir foru fra Hafenu Rauda, og settu Herbuder j Eydemorku Zin.
12. Þa foru þeir fra Eydemorkn Zin, og settu Herbuder j Daphka.
13. Þeir foru vt fra Daphka, og settu Herbuder j Alus.
14. Þeir foru vt fra Alus, og settu Herbuder j Raphidim, þar hafde Folked eckert Vatn ad drecka.
15. Þeir fooru af Raphidim, og settu sijnar Herbuder j Eydemorku Sinai.
16. Þeir ferduduſt fra Sinai, og settu sijnar Herbuder j Gyrndargrofum.
17. Og þeir ferduduſt burt fra Gyrndargrofunum, og settu sijnar Herbuder j Hazeroth.
18. Þeir foru vt fra Hazeroth, og settu sijnar Herbuder j Rithma.
19. Þeir ferduduſt fra Rithma, og settu sijnar Herbuder j Rimon Parez.
20. Þeir fooru fra Rimon Parez. Og settu sijnar Herbuder j Libna.
21. Þeir foru fra Libna, og settu sijnar Herbuder j Rissa.
22. Þeir ferduduſt fra Rissa, og settu sijnar Herbuder j Kehelatha.
23. Þeir ferduduſt fra Kehelatha, og settu sijnar Herbuder a Fiallenu Sapher.
24. Þeir ferduduſt fra Fiallenu Sapher, og settu sijnar Herbuder j Harada.
25. Þeir foru fra Harada, og settu sijnar Herbuder j Makeheloth.
26. Þeir ferduduſt fra Makeheloth, og legrudu sig i Thahath.
27. Þeir foru fra Thahath, og settu sijnar Herbuder j Tharah.
28. Þeir foru fra Tharah, og settu sijnar Herbuder j Mithka.
29. Þeir foru fra Mithka, og settu sijnar Herbuder j Hasmona.
30. Þeir foru fra Hasmona, og settu sijnar Herbuder j Moseroth.
31. Þeir foru fra Moseroth, og settu sijnar Herbuder j Bne Jaekon.
32. Þeir foru fra Bne Jaekon, og settu sijnar Herbuder j Horgidgad.
33. Þeir foru fra Horgidgad, og settu sijnar Herbuder j Jathbatah.
34. Þeir foru fra Jathbatah, og settu sijnar Herbuder j Abrona.
35. Þeir foru fra Abrona, og settu sijnar Herbuder j Ezeongaber.
36. Þeir foru fra Ezeongaber, og settu sijnar Herbuder j Eydemorku Zin, þad er Kades.
37. Þeir foru fra Kades, og settu sijnar Her-

Herbwoder hiaa Fiallenu Hor, hiaa Edoms Landamerkium.

38. Þar gieck Presturenn Aaron uppa Fallid Hor, epter Bijfalningu DRottins, og Andadest þar, a þvi Fertugasta Are epter það sem Israels Born voru farenn af Egyptalande, þann Firsta Dag j þeim Fimmta Maanade.

39. Þa hann var Hundrad Tuttugu og þriggia Aara gamall.

40. Og Arad, Cananita Kongur, sem bio j sunnanverdu Landenu Canaan, spurde ad Israels Born voru komenn.

41. Og þeir ferduduſt fra Fiallenu Hor, og settu sijnar Herbwoder j Zalmona.

42. Og þeir ferduduſt fra Zalmona, og settu sijnar Herbwoder j Phunon.

43. Þeir foru fra Phunon, og settu sijnar Herbwoder j Oboth.

44. Þeir fooru fra Oboth, og settu sijnar Herbwoder j Jgim, hiaa Fiallenu Abarim, j Landamerkium þeirra Moabitarum.

45. Þeir foru fra Jgim, og settu sijnar Herbwoder j Dibongad.

46. Þeir foru fra Dibongad, og settu sijnar Herbwoder j Almon Diblathaim.

47. Þeir foru fra Almon Diblathaim, og settu sijnar Herbwoder j Abarim Fialle giegnt Nebo.

48. Þeir foru fra Abarim Fialle, og settu sijnar Herbwoder a Vollum þeirra Moabita, vid Jordan, gagnvart Jericho.

49. Enn þeir settu sijnar Herbwoder fra Beth Jesimoth a Breidlendenu Sittim, a Vollum þeirra Moabita,

50. Og DROTTinn talade vid Mosen a Moabitanna Vollum, hiaa Jordan giegnt Jericho, og sagde,

51. Tala þu vid Israels Born, og seig til þeirra, þa þier erud komner yfer Jordan, jnn j það Land Canaan,

52. Þa skulud þier burtdrijfa alla Innbiggiara fra ydar Auglite, og eydeleggia alla þeirra Stolpa, og oll þeirra steypt Bijlæte, og ad ongvo giora allar þeirra Hæder,

53. So ad þier eigneſt Landed, og bwed þar j. Þvi eg hefe giefed ydur Landed, ad þier eigneſt þad.

54. Og þier skulud skipta Landenu med Hlutfalle j millum ydar Kinkvijsla, þeir sem eru marger, þeim skulud þier skipta þess meira, og þeir sem eru fᴏaer, þeim skulud þier þess minna skipta, so sem Hlutfalled fellur hvorium til, so skal hann hafa, epter þeirra Fedra Ættkvijslum.

55. Enn sie þad so, ad þier burtdrijfed ecke Landsins Innbyggiara fra ydar Asionu, þa skulu þeir sem þier loated epter blijfa, verda ydur Pyrner j Augum, og til Brodda j ydar Sijdur, og þeir skulu þreingia ad ydur j þvi Lande sem þier bwed j.

56. Þa mun þad skie, ad hvad Eg hugde ad giora þeim, þad skal Eg giora ydar.

## XXXIV. Capitule.

Landamerke og Naagrenne Canaans-Lands.

Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Biod þu Israels Bornum, og seig til þeirra, Þa þier komed j Canaans Land, þa skal þad Land sem ydur hlotnaſt til Arfs j Canaans Lande hafa sijn Landamerke.

3. Það Sydra Landshorned skal taka fra Eydemorkenne Zin, hiaa Edom, so ad ydar Landamerke j Sudur sie fra enda þess Sallta Hafs, sem liggur j Austur.

4. Og þad Landamerke sem liggur fra Sudre, upp jmoot Akrabbim, og geingur j giegnum Zinna, og tekur j fra Sudre, allt til Kades Barnea, og nær allt til þess Porps Adar, og geingur j giegnum Asmon.

5. Og tekur allt fra Asmon til Egyptalækiar, og endenn þar a sie vid Sioenn.

6. Enn Landamerkenn j Vestur fra skulu vera

vera þad Mikla Haf, þad skal vera ydar Landamerke Vestur fra.

7. Enn Landamerke Nordur fra, skulu þesse vera, þier skulud mæla fra þvi Stoora Hafe til Fiallsins Hor.

8. Og fra Fiallenu Hor skulud þier mæla, þar til Mann kiemur til Hamath, og þad skal ganga vt allt til Landamerkia Zedada,

9. Og Endenn a þeim somu Landamerkium til Siphron, og skal endast hioa þvi Þorpe Enan, þetta skulu vera ydar Landamerke j Nordur-ætt.

10. Og þier skulud mæla ydar Landamerke Austur fra þvi Þorpe Enan til Sepham,

11. Og Landamerked skal ganga nidur fra Sepham til Ribla Austanverdt vid Ain, þar epter skal þad ganga ofann epter, og beyast til Siofarsijdunnar Cinereth til Austurs,

12. Og koma nidur til Jordanar, so skal þad endast vid þad Sallta Hafed, þetta skal vera ydart Land allt umkring, med sijnum Landamerkium.

13. Og Moses baud Israels Bornum, og sagde, Þetta er þad Land sem þier skulud skipta a millum ydar epter Hlutfalle, hvort DRottinn bifalade ad giefa þeim Niju Kinkvijslum, og þeim hoalfa Kinþætte.

14. Þvi Ættkvijsl Barna Rubens, epter þeirra Fedra Hwse, og Gads Barna Ættkvijsl, epter þeirra Fedra Hwse, og Manasses Hoalf Ættkvijsl, hefur teked sinn Hluta.

15. So hafa þær tvær Ætter, og su halfa Ætt þeirra Arfskipte j burt, a þessa Sijdu Jordanar, j Austre, giegnt Jericho.

16. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

17. Þesse eru Nofn þeirra Manna sem skipta skulu Landenu med ydur, Presturenn Eleasar, og Josua, Son Nuns.

18. Þar til skulud þier taka hvorn Ættarhofdingiann, til ad skipta Landenu.

19. Og þetta eru Nofn þeirra Manna, Caleb, Son Jephunne, af Juda Kine,

20. Semuel, Son Amihud, af Simeons Kine,

21. Elidad, Son Chislom, af BenJamins Kine,

22. Buki, Son Jagli, Hofdinge yfer Kine Barna Dan.

23. Haniel, Son Ephod, Hofdinge fyrer Kine Barna Manasse. Af Bornum Josephs,

24. Kemuel, Son Siphtan, Hofdingenn yfer Kine Ephraims Barna.

25. Elizaphan, Son Parnach, Hofdingenn yfer Kine Sebulons Barna.

26. Paltiel, Son Asans, Hofdingenn yfer Kinþoatt Isaschars Barna,

27. Animihud, Son Selomi, Hofdingenn yfer Kinþoatt Assers Barna.

28. Pedahel, Son Ammihud, Hofdingenn yfer Kinþoatt Nephthali Barna.

29. Þesser eru þeir sem DRottin baud ad skipta Orfunum med Israels Bornum, j Canaans Lande.

## XXXV. Capitule.

Løg (I) um Borger Levitanna; (II) Um Frijstade fyrer Manndrapara, er sto nockurn jhel oviljande.

I. Og DRottinn talade vid Mosen, a Moabitis Vollum, hioa Jordan, gagnvart Jericho, og sagde,

2. Biod þu Israelis Bornum, ad þeir giefe Levitunum Borger af þeirra Arfa Gotse, til ad bwa j, þar til skulud þier og giefa Levitunum Under-Stade allt umkring Borgernar,

3. So þeir sialfer meige bwa j Borgunum, enn hafa þeirra Kvikfie, Gots, og allrahanda Dyr j Understodunum.

4. Enn þeir somu Understader, sem þeir skulu giefa Levitunum, skulu vera Þusund Alna vt fra Stads Mwrnum allt umhverfis.

5. So skulud þier nu mæla utann fyrer Stadnum, fra þvi Austur Horne, Tvo Þusund Alna, og fra þvi Sydra Hornenu,

Tvo Pusund Alna, og fra Hornenu j Vestur, Tvo Pusund Alna, og fra þvi Hornenu vid Nordur Sijdu, Tvo Pusund Alna, so ad Borgenn sialf sie riett j midiu, þad skulu vera þeirra Under-Stader.

6. Og medal þeirra Borganna sem þier giefed Levitunum, skulud þier giefa Sex Frelsis Stade, ad þangad meige flya sa sem Manne hefur ad skada orded. Ad auk þessara þa skulud þier enn giefa Tvo og Fiorutiju Stade,

7. Ad aller Stader þeir þier giefed Levitunum, verde aatta og Fiorutiju, med þeirra Forstodum.

8. Og þier skulud giefa þeim af Israelis Barna Eign, meira fra þeim sem meira hafa, enn minna fra þeim sem minna hafa, sierhvor skal giefa Levitunum Stade epter sinne Erfd, sem honum skiptest.

II. 9. Og DRottinn talade vid Mosen, og sagde,

10. Tala þu vid Israels Born, og seig til þeirra, Nær þier komed yfer Jordan a Canaans Land,

11. Þa skulud þier utvelia Stade, sem vera skulu Frelsis-Stader, til hvorra þeir meige flya sem ovart sloa nockurn jhel.

12. Og þier skulud hafa þessa Frelsis-Stade fyrer Blodhegnaranna saker, so ad þeir skulu ecke deyda hann sem nockud Manndraap hefur giort, fyrr enn hann hefur staded Riett fyrer Almuganum.

13. Og þeir Stader sem þier skulud giefa, skulu vera Sex Frelsis Stader.

14. Þria skulud þier giefa þessumeigenn Jordanar, og Þrijr j Canaans Lande.

15. Þesser eru þeir Sex Frelsis stader, bæde fyrer Israels Born og Framande, og so fyrer Innbyggiarana millum ydar, ad sa flye þangad sem slær nockurn til Dauds oforvarandis.

16. Hvor sem slær nockurnmed Jarne, so hann deyr, hann er eirn Manndraapare, og skal sannlega deya.

17. Enn sloe hann med einum Steine (sem nockur meige sloast j Hel med) og hann deyr þar af, þa er hann eirn Manndraapare, og skal sannlega deya.

18. Enn sloe hann med nockurs hvattar Trie (þvi sem nockur ma sloast j hel med) so ad hann deyr, þa er hann eirn Manndraapare, og skal sannlega deya.

19. Blodhegnarenn skal laata deyda þann Manndraapara, Lijka sem hann hefur sleiged, so skal hann aptur deydast.

20. Hrinde hann honum af Hatre, eda kastar nockru a hann sviksamlega, so hann deyr,

21. Edur slær hann til Dauds af Heipt med sinne Hende, so hann deyr, þa skal sa sem hann sloo, vissulega deya, þvi hann er eirn Manndraapare. Bloods Hegnarenn skal laata drepa hann.

22. Enn ef nockur hrinder honum oforvarandis, fyrer utann Ovinaattu, eda kastar nockru ovarlega a hann,

23. Eda kastar einum Steine a hann sem honum ma til Bana verda, og sa þad ecke) so ad hann deyr, og hann er ecke hans Ovin, og eige villde hann honum Vondt,

24. Þa skal Almugenn dæma j millum þess er sloo, og Bloodhegnarans j þessum Doome.

25. Og Almugenn skal frelsa Manndraaparann af Bloodhegnarans Hende, og skal laata hann koma aptur til þess Frelsis Stadar, sem hann flyde til, og hann skal vera þar, þar til sa Ypparste Prestur deyr, sa sem smurdur er med þvi Heilaga Oleo.

26. Enn gange Manndraaparenn ut af Landamerkium þess Frelsis Stadar, sem hann flyde til,

27. Og Blodhegnarenn finnur hann fyrer utann þess Frelsis Stadar Landsmark, og slær hann j hel, þa skal hann ecke vera sakadur j hans Blode.

28. Þvi hann aatte ad bliifa j siinum Frelsis Stad, til þess Ypparsta Prests

Dauda, og epter þess Ypparsta Prests Dauda skyllde hann koma til siins Lands aptur, þar hann hafde sitt Erfda Gots.

29. Þetta skal vera ydur eirn Riettur hioa ydar Epterkomendum, hvar hellst þier bwed.

30. Eirn Manndrꜵpara skal slꜵ j Hel, epter Minne tveggia Votta, Eitt Vitne skal ecke svara j moot nockrum til Dauda.

31. Og þier skulud ongva Forlijkun taka af nockrum Manndrꜵpara, þvi hann hefur forþienad ad deya, og hann skal vissulega deya,

32. Og þier skulud ongva Forlijkun taka fyrer þann sem flyr j Frelsisstadinn, ad hann skule koma aptur, og bwa j Landenu, fyrr enn Presturenn deyr.

33. Og saurged ecke Landed þad þier bwed j, þvi hvor sem Blods sekur er, hann saurgar Landed, og Landed mꜵ ecke forlijkast fyrer þad Blod sem wt er hellt, nema med þess Blode sem þvi wthellte.

34. Saurged eige Landed, þad þier bwed j, j hvoriu Eg og by, þvi Eg er DRottinn, sa sem byr a millum Jsraelis Barna.

## XXXVI. Capitule.

Erfdahlute Jsraels Barna atte ecke ad koma fra Einne Ættkvijsl under adra.

Og þeir Yppurstu Fedur af Ættkvijsl Sona Gilead, Sonar Machir, sem var Son Manasses, af Ætt Josephs Barna, geingu framm, og toludu til Mosen, og so til Hofudsmannanna, og til Yppurstu Fedra Jsraelis Barna,

2. Og sogdu, Kiære Herra, DRottinn hefur boded, ad Menn skule giefa Jsraelis Bornum Landed til Arfskiptis med Hlutfalle, Og þier, Minn Herra, er þad bijfalad fyrer DRottinn, ad vier skylldum giefa vors Brodurs Zelaphehads Dætrum hans Erfdahlut.

3. Nu ef nockur af Jsraels Ættum tekur þær til Eigennkvenna, þa verdur vor Fodur Arfur minne, og so miked sem þær hafa, fellur þad til Arfs j þa Ættkvijsl sem þær koma til, Og verdur þa vor Erfda Hlutur þess minne.

4. Og þa þad Fagnadar Aar kiemur nu fyrer Jsraels Bornum, þa kiemur og þeirra Erfda hlutur burt, til þeirrar Ættkvijslar sem þær eru. Og med þessu verdur vor Fodur Arfur þess mun minne, sem þær hafa miked.

5. Og Moses baud Jsraels Bornum, epter bifalningu DRottins, og sagde, Þad er riett sem ætt Barna Josephs hefur sagt.

6. Þetta bydur DRottinn um Zelaphehads Dætur, og seiger, Þær meiga gipta sig hvorium þær vilia, þo so, ad þær gipte sig j sinnar Fodur-ættar Frændskap,

7. So Erfd Jsraelis Barna falle ecke fra eirnre Ættkvijsl til annarar, þviad hvor og eirn af Jsraels Bornum skal blijfa vid Arf sinnar Fodur-ættar.

8. Og allar Dætur sem hafa Erfdar Part a medal Jsraels Barna ættar þær skulu giptast j sinna Fedra ættar Frændskap, so hvor eirn og eirn a medal Jsraelis Barna meige hallda siins Fodurs Arfe,

9. So ad ecke falle nockur Erfd wr-ættis, j adra Ættkvijsl, helldur ad hvor meige hallda sinne Erfd, a millum Jsraelis Barna Ættar.

10. Zelaphehads Dætur, Mahela, Thirza, Hagla, Milcha, og Noa, giordu sem DRottinn hafde boded Mose,

11. Og giptust sijnum Frændum,

12. J Manasses Barna Ætt, Sonar Josephs, so var þeirra Arfleifd j Ætt þeirra Fodur Frænda.

13. Þesse eru þau Bodord, og Skickaner, sem DROTTINN baud Jsraelis Bornum, fyrer Mosen, a Vollum Moabitanna, hioa Jordan, gagnvart Jericho.

Endar þeirrar Fiordu Bokar Moses.

# Deuteronomium.

# Hin Fimta Bok Moses.

## I. Capitule.

Moses talar um Guds Velgiørder, og um Illverk Israels Barna.

PEsse eru þau Ord, sem Moses talade til alls Israels, hinumeigenn Jordanar, j Eydemørkenne, a þvi Sliettlende, vt jmoot þvi Rauda Hafenu, a mille Paran og Thophel, Laban, Hazeroth og Disahab.

2. Ellefu Dagferder fra Horeb, j gegnum þann Veigenn Fiallsins Seir, allt til Kades Barnea.

3. Og þetta skiede a Fertugasta aare, a Firsta Deige * þess Ellefta Maanadar, þa talade Moses vid Israels Børn, allt þad sem DRottinn hafde boded honum.

* Þann Firsta Februarii.

4. Epter þad sem þeir hofdu jhel slegeid Sihon, Amoritanna Kong, sem bio j Hesbon, þar med og Kongenn j Basan, sem bioo j Astaroth, og j Edrei,

5. Hinumeigenn Jordanar, j Moabitanna Lande, took Moses til ad vtleggia þetta Logmaal, og sagde.

6. DROTTINN GUD vor talade vid oss a Fiallenu Horeb, og sagde, Þier hafed nu nogu leinge vered a þessu Fialle,

7. Snued ydur, og fared hiedann, so ad þier komed til Amoritanna Fialls, og til allra þeirra sem þeim eru naalæger, a Sliettlendenu, a Fiollunum, og j Dolunum jmoote Sudrenu, og jmoot Hofnum Siaafarins, Landsins Canaan, og til Fiallsins Libanon, allt til hins Mikla Vatnsins Phrath.

8. Sioaed, Eg hefe giefed ydur þad Land sem fyrer ydur liggur, fared þangad og eignest þad, hvort ed DROTTinn hefur svared Fedrum ydar, Abraham, Isaac, og Jacob, ad hann villde giefa þeim þad, og þeirra Sæde epter þa.

9. Þa sagde eg j þann sama tijma til ydar, Eg kann ecke einsamall ad bera ydur,

10. Þviad DROTTinn ydar GUD hefur margfalldad ydur, so ad þier erud j Dag so marger sem Stiornur a Himne,

11. (DROTTinn GUD Fedra ydra giore ydur enn Morgum Þusundum fleyre, og blesse ydur so sem hann hefur sagt ydur.)

12. Hvornenn kann eg eirnsamann ad bera þvilijka Armædu, þunga og þrætur af ydur?

13. Utvelied Vijsa og Skinsama Menn, þa sem valennkunner eru, a medal ydar Kinkvijsla, þa hinu somu vil eg setia yfer ydur til Hofdingia.

14. Þa svorudud þier mier, og sogdud, Þad er einn goodur Hlutur, sem þu seiger þad þu vilier giora.

15. Þa tok eg hina Ædstu Menn ydvara Kinkvijsla, Vijsa Menn og skinsama, og sette þa til Hofdingia yfer ydur, yfer Þusund, yfer Hundrad, yfer Fimmtijger, og yfer Tiju, og Embættis Menn medal ydar Kinkvijsla.

16. Og eg baud ydrum Domurum þann sama Tijma, og sagde, Heyred ydar Brædur, og dæmed riett a millum hvors Manns, og hans Brodurs, og hins Framanda.

17. Hafed * eckert Manngreinar aalit j Dome, helldur skulud þier heyra hinum Minnsta, sem hinum Hærsta, og ecke skielfast fyrer nockurs Manns Personu, þviad Domara Embættid er GUds. Enn ef nockur Maalefne eru ydur ofþung, þa laated þau koma fyrer mig, so ad eg yfer-heyre þau.

* Jac. 2, 1. etc.

18. So baud eg ydur a þeim Tijma allt hvad þier skylldud giora.

19. So

19. So foorum vier fra Horeb, og reisꝭ
tum j giegnum alla Eydemørkena (ſu bæde er
mikel og hrædeleg, ſem þier hafed ſied) a
þann Veigenn ſem liggur til Fiallſins þeirra
Amorita, ſo ſem þad DROTTinn GUD
vor hafde boded oſs, og komum til Kades
Barnea.
20. Pa ſagde eg til ydar, Þier erud komꝭ
ner til Fiallſins þeirra Amorita, hvørt ed
DROTTinn GUD vor vill giefa oſs,
21. Siaa þu þar þad Landed fyrer þier,
ſem DROTTinn GUD þinn hefur giefed
þier, Far þu upp og eignaſt þad, ſo ſem þad
DROTTinn GUD Fedra þinna hefur ſagt
þier, ottaſt eige og hræðſt eige neitt.
22. Pa komud þier aller til mijn, og ſøgꝭ
dud, Latum oſs ſenda nockra Menn þangad
undann oſs, ſem fare ad ſkoda Landed, og
ſeige oſs aptur, um hvørn Veg ad vier ſkuꝭ
lum þangad fara, og þa Stadena ſem vier
eigum til ad koma.
23. Pad lijkade mier vel, og eg tok Tolf
Menn af ydur, eirn af hvørre Kinkvijſl.
24. Pa þeir ſomu geingu j burt, og foru
um Fiallbigdernar, og komu til Lækiarins
Eſcol, þa ſkodudu þeir þad.
25. Og þeir toku af Avextenum Landſins
med ſier, og høfdu þa ofann hingad til vor,
og gaafu oſs þad Svar aptur, og ſogdu,
Pad Land er gott ſem DROTTINN GUD
vor hefur giefed oſs.
26. Enn þier villdud ecke fara þangad,
og þier vorud ohlydner Munne DROttins
GUds ydars,
27. Og mogludud j Landtiolldum ydrum,
og ſøgdud, DROTTinn hann hatar oſs,
þar fyrer hefur hann utleidt oſs af Egyptaꝭ
lande, ad hann villde giefa oſs j hendur Aꝭ
moritanna, ad þeir j eydelegde oſs.
28. Hvørt ſkulum vier fara? Brædur
vorer hafa ſkielft vor Hiortu, og ſagt, Pad
Folk er ſtærra og hærra enn vier, Borger
eru þar ſtoorar og Rammbigdar allt til Hiꝭ
mens, þar med høfum vier ſied j þeim ſama
Stad Born Enakims.

29. Pa ſagde eg til ydar, lated ecke ſkielfa
ydur, og hræðeſt þa ecke.
30. DROTTINN GUD ydar hann
ſeiger ydur leid þangad, og hann nun beꝭ
riaſt fyrer ydur, ſo ſem hann giørde vid ydur
j Egyptalande, fyrer ydar Augum.
31. Og a Eydemørkenne, þar þu ſied
hefur hvørnenn þad DRottinn GUD þinn
hefur bored þig, lijka ſem einn Madur ber
ſinn Son, j giegnum allann þann Veigenn
ſem þier hafed umfared, þangad til þier erud
komner til þeſſa Stadar.
32. Enn þad fiekſt med øngvo mote af
ydur, ad þier villdud trua a DROTTinn
GUD ydarn,
33. Hvør ed gieck fyrer ydur, til ad vijꝭ
ſa ydur þa Stadena, hvar ad þier ſkulud
legra ydur, a Nottenne, j Elldenum, ſo ad
hann vijſade ydur þann Veigenn, ſem þier
ſkylldud ganga, og a Dagenn j Skyenu.
34. Enn ſem ad DROTTinn heyrdè
ydar Kveinan, vard hann reidur, ſoor
og ſagde,
35. Þar ſkal eingenn af þeſſare vondre
Kinſlod ſiaa þad gooda Landed, ſem eg hefe
ſvared ad giefa Fedrum þeirra.
36. Utann Caleb, Son Jephunne, hann
ſkal ſiaa þad, og honum vil Eg giefa þad
Landed, og hans Børnum, ſem hann hefur
yfer fared, af þvi, ad hann hefur trulegana
epterfilgt DROttne.
37. Og DROTTenn vard eirnenn reiꝭ
dur vid mig, ydar vegna, og ſagde, þu
ſkallt og eirnenn ecke helldur koma þangad.
38. Enn Joſua, Son Nuns, ſem er þinn
Þienare, hann ſkal koma þar jnn, ſtirk þu
hann, þviad hann ſkal utſkipta Arftøkunne
a medal Jſrael.
39. Og ydar Børn, af hvørium þier
ſøgdud, þeir munu verda eitt Herfang, og
ydrer Syner, ſem j Dag hafa hvørke Skin
a godu nie jllu, þeir ſkulu koma þar jnn,
þeim enu ſomu vil eg giefa þad, og þeir ſkuꝭ
lu eignaſt þad.

40. Enn þier snued ydur aptur, og ferdist til Eydemerkur, a þann Veigenn til Rauda Haffins.

41. Pa svorudud þier, og sogdud til mijn, Vier hofum syndgast a mote DRottni, vier vilium fara upp og beriast, so sem þad DROTTinn GUD vor hefur boded oss. Pa þier herklæddud ydur nu, hvor einn sijnum Herklædum, og vorud a þvi ad ferdast uppa Fiallid,

42. Pa sagde DROTTinn til mijn, Seig þu þeim, ad þeir fare ecke upp, og beriest ecke helldur, þviad Eg er ecke a medal ydar, so ad þier verded ecke slegner af ydrum Ovinunum.

43. Pa Eg sagde ydur þetta, villdud þier ecke hlyda mier, og þier vorud ohlyduger Munne DROTTins, og metnudust, og foorud uppa Fialled.

44. Pa fooru þeir Amoritar ut a mote ydur, sem bivggu a Fiollunum, og elltu ydur, so sem ad Bijflugurnar giora, og slogu ydur j Seir, allt til Harma.

45. Pa þier komud nu aptur, og grietud fyrer DROTTni, þa villde DROttinn ecke heyra ydra Raust, og hneigde ecke sijn Eyru til ydar.

46. Svo vorud þier uti Kades j langa Tijma, so leinge sem þier vorud þar.

## II. Capitule.

*Israels Born vinna Sigur a Amoritum.*

Pa snerum vier oss, og foorum til Eydemerkurennar, a þann Veigenn ut til Rauda Haffins, so sem þad DROTTinn sagde til mijn, og vier foorum j kringum Fialled Seir j langa Tijma.

2. Og DROTTinn sagde til mijn,

3. Þier hafed nog fared j kringum þetta Fiall, snued ydur jmot Nordrenu.

4. Og biod þu Folkenu, og seig, Þier skulud ganga j giegnum Lands Alfur Brædra ydara, Barna Esau, sem bua j Seir, og þeir munu Otta slegner vera fyrer ydur.

5. Enn taked ydur vel j vakt, ad þier strijded ecke jmot þeim, þviad Eg vil ecke giefa ydur eitt Fet af þeirra Lande, þviad Fialled Seir hef Eg giefed Bornum Esau til eignar.

6. Þier skulud kaupa Mat af þeim fyrer Peninga ad eta, og þier skulud kaupa Vatned af þeim fyrer Peninga til ad drecka.

7. Þviad DROTTinn GUD þinn hefur blessad þig j ollum þijnum Handa Verkum, honum hefur Hugstæd vered þijn Reisa, j giegnum þessa hina miklu Eydemorku, og þad eru nu Fiorutijger Ar, ad DRottinn GUD þinn hefur hiaa þier vered, svo ad þig brast ecke neitt.

8. Pa vier vorum nu farner framm hiaa Brædrum vorum, Bornum Esau, sem biuggu a Fiallbiggdum Seir, a þeim Veigenum þess Sliettlendesins fra Elath og Ezeongaber, þa snerum vier oss og geingum a þann Veigenn til Moabita Eydemerkur.

9. Pa sagde DRottinn til mijn, Þu skallt ei giora þeim Moabitis neitt Skadræde, og strijda ecke j mot þeim, þvi eg vil eckert giefa þier af þeirra Lande til eignar, af þvi, ad eg hefe giefed Ar Bornum Loths til eignar.

10. Þeir Emim hafa j fordum tijd bued þar jnne, þad var eitt stort, sterkt, og hватt Folk, so sem þeir Enakim,

11. Menn hielldu þa og fyrer Risa, lijka sem Enakim, og Moabitar kolludu þa og Emim,

12. Og Horitar biuggu og eirnenn fordum daga j Seir, Born Esau drifu þau j burt, og foreyddu þeim fyrer sier, og biuggu j þeirra Stødum, Lijka sem Israel giorde vid þad Land sem þeir eignudust, hvort ed DRottinn gaf þeim.

13. So taked ydur nu upp, og fared yfer um Lækenn Sared, Og vier foorum þar yfer um.

14. Enn sa tijmenn, þa vier foorum fra Kades Barnea, allt þangad til er vier komum yfer um Lækenn Sared, voru Atian og tuttugu ar, So þad aller Strijdsmennerner dæe j Herbudunum, so sem þad DRottinn hafde svared þeim. 15.

15. Þar med var og Hond DRottins og moote þeim, til ad foreyda þeim vor Herbudunum, þar til þeir eyddust aller.

16. Og þa Strijdsmennerner voru aller fallner, so ad þeir deydu nidur a medal Folksins,

17. Þa talade DRottinn til mijn, og sagde,

18. Þu munt fara j Dag j giegnum Landamerke þeirra Moabita, j hioa Ar,

19. Og þu munt koma alla Leid framm giegnt Bornum Ammons, ongvañ skada skalltu þeim giora, og eige helldur beriast vid þa, þviad eg vil ongvann hlut af Lande Ammons Barna giefa þier til eignar, þvi eg hefe giefed Bornum Loths þad til eignar.

20. Þad er og hallded fyrer eitt Risa Land, þar hafa og einnenn fordum Daga Risar inne bwed, og þeir Ammonitar kolludu þa Sammesumim.

21. Þad var eitt stort, sterkt, og hoatt Folk, so sem Enakim. Og DRottinn afmaade þa fyrer þeim, og liet þa eignast þad, soo ad þeir biuggu þar inne j þeirra Stad,

22. Lijka sem þad hann hafde giort vid Born Esau, sem biuggu a Fiallenu Seir, þa hann j eyde lagde Horitana fyrer þeim, og liet þa eignast þad, so ad þeir biuggu þar j þeirra stad allt til þessa Dags.

23. Og þeir Caphthorim ferdudust wt fra Caphthor, og j eydelogdu þa Avim, sem biuggu j Hazerim, allt til Gaza, og biuggu so þar j þeirra Stodum.

24. Taked ydur upp, hafed ydur af stad, og fared yfer um Lækenn hioa Arnon, Sioa þu, Eg hefe giefed Sihon, Kongenn þeirra Amorita af Hesbon, j þijnar Hendur, med hans Lande. Tak nu til under þig ad leggia og eig Bardaga vid hann,

25. J Dag vil Eg upp hefia, ad allar Þioder, under ollum Himnenum, skulu hrædast og skielfast fyrer þier, ad nær þær heyra þijn gieted, þa skulu þær skoa Hrædslu og Kvijda fyrer þinne Komu.

26. Þa sende eg Bod wr Austann-verdre Eydemorkinne til Sihons, Kongsins af Hesbon, med fridsamlegum Ordum, og liet seigia honum,

27. Eg vil fara j giegnum þitt Land, og þar sem Vegurenn er, þar vil eg ganga, og vijkia hvorke til hægre Handar nie Vinstre wt af Veigenum.

28. Mat skalltu selia mier fyrer Peninga til ad eta, og Vatn skalltu giefa mier ad drecka fyrer Peninga, Eg vil ecke utann ganga þar a Fæte j giegnum,

29. Lijka sem Born Esau, þeir ed bwa j Seir, hafa giort vid mig, og Moabitarner sem bwa j Ar, þangad til ad eg kiemst yfer um Jordan, j þad Land sem DRottinn Gud vor mun giefa oss.

30. Enn Sihon, Kongurenn af Hesbon, villde ecke leyfa oss ad ferdast þar j giegnum, þviad DRottinn Gud þinn forherdte hans Sinne, og forblindade hans Hiarta, uppa þad hann villde giefa hann j þijnar hendur, so sem ad nu ma sioa a þessum Deige.

31. Og DRottinn sagde til mijn, Sioa þu, Eg hefe byriad ad giefa upp fyrer þier Sihon og hans Land, tak þu til ad eignast og under þig leggia hans Land.

32. Og Sihon foor wt j mot oss med allt sitt Folk, til ad strijda j Jahza.

33. Enn DRottinn Gud vor gaf hann under oss, so ad vier sloound hann og hans Born, og allt hans Folk.

34. Þa unnum vier þann sama tijma alla hans Stade, og forbonnudum ollum Stodum, bæde Menn, Konur og Born, og lietum eckert epter lifa,

35. Utann Fienadenn, hvorium vier rændum til vor, og Herfoangeod wr Stodunum, sem vier hofdum unned,

36. J fra Aroer, sem liggur vid Backann hioa Lækinum Arnon, og j fra þeim Stadnum vid Vatned, jnn til Gilead, þar var eingenn soa Stadur, sem kunne ad veria sig fyrer oss, DRottinn Gud vor gaf þa alla under oss.

37. Utann þad eina, ad þu moatter ecke koma j Land þeirra Ammons Barna, og til ongra þeirra sem liggia vid Lækenn Jabok, eige helldur til Stadanna a Fiallbiggdunum, nie til nockra þeirra sem DRottinn Gud hafde fyrerbodeд oß.

# III. Capitule.

Israels Born sigrast a Og Konunge i Basan.

Og vier snerum oß, og foorum upp þadan, þann Veg sem liggur til Basan. Þa foor Og Kongurenn af Basan vot j mote oß, med allt sitt Folk, til Bardaga hia Edrei.

2. Enn DRottinn sagde til mijn, Vert obræddur fyrer þeim, þviad eg hefe giefed hann, allt hans Folk, med hans Lande, j þijnar Hendur, Og þu skallt giora vid hann lijka sem þu giorder vid Sihon Amorita Kong, sem bio j Hesbon.

3. So gaf DRottinn Gud vor eirnen Kongenn Og af Basan j vorar hendur, med ollu hans Folke, so ad vier slooum hann, þangad til ad þar var eingenn epter.

4. Þa yferunnum vier þann sama tijma allar hans Borger, og þar var eingenn sa Stadur ad vier tookum eige fra honum, Sextijge Borger, allt þad Hieradid Argob, j Ogs Kongsrijke, af Basan.

5. Aller þesser Stader voru rammbiggder med hoaum Mwrveggium, Borgarhlidum, og Slagbrondum, fyrer utann onnur miog morg Þorp, sem ecke voru Mwrvegger um kring.

6. Og vier bannsettum þa, lijka sem vier giordum vid Sihon Kongenn af Hesbon. Alla Stadena bannfærdum vier, bæde Menn, Konur og Born,

7. Enn allt Kvikfied og Herfoanged sem var j Stodunum, ræntum vier til vor.

8. So tookum vier j þann tijma Landed, af Hende þeirra tveggia Amorita Konga, hinum meigenn Jordanar, allt j fra þeim Læknum hia Arnon, jnn til Fiallsins Hermon,

9. Hvort ed Sidonitar kalla Sirion, Enn þeir Amoritar kalla þad Senir.

10. Alla Stadena a Sliettlendenu, og giorvallt Gilead, og allt Basan, jnn til Salcha og Edrei, þa Stadena j Ogs Kongs rijke af Basan.

11. Þviad Kongurenn Og af Basan var enn nu alleina epter blifenn af Risunum, Sioa þu, hans Joarn=Sæng er hier j Rabbath, hia bornum Ammons, Niju Alna laung, og Fiogra Alna breid, epter Karlmans Alboga.

12. Og vier logdum þad Land under oß þann sama tijma, j fra Aroer, sem liggur hia Arnons Læk. Og eg gaf þeim Rubenitum og Gadditum þad hoalfa Fialled Gilead, med sijnum stodum.

13. Og þvi hoalfu Manaßis Slekte gaf eg þa adra Helftena af Gilead, og allt Kongsrijked Ogs af Basan, og giorvallt Hieraded Argob, og allt Basan, þad kallast Risa Land.

14. Jair Son Manaßis nam allt Hieraded Argob, til Geßuri, og Maachati Landamerkia, og hann kallade Basan epter sijnu Nafne HavothJair, allt til þeßa Dags.

15. Enn Machir gaf eg Gilead.

16. Og þeim Rubenitum og Gadditum gaf eg einn Partenn af sama Lande Gilead, jnn til Arnons Lækiar, midt j Lækenn, sem Landamerked er, og allt jnn til þeß Lækiarinns Jabok, sem er Landamerke Barna Ammons.

17. Þar med sliettu Vellena og Jordan (sem er Landamerked) fra Chinereth, jnn til Sioafarens hia Sliettlendenu, sem er, sa sallte Sioorenn, nedanverdt hia þvi Fiallenu Pisga, moote Austrenu.

18. Eg baud ydur þann sama tijd, og sagde, DROTTinn Gud ydar hefur giefid ytur þetta Land til eignar, Af þvi dragid nu herklædder framme fyrer ydar Brædrum Israels Bornum, so marger sem færer eru j Strijd ad fara,

19. Fyrer

19. Fyrer utann ydar Hwsfreyur, Born og Fienad (þviad eg veit, ad þier hafed mikinn Fienad) þad laated blijfa j ydrum Stødum, þeim sem eg hefe giefed ydur.

20. Þangad til ad DROTTJNN hann kiemur ydar Brædrum til Hvijldar, so sem ydur, so ad þeir meige og eignast þad Land sem DROTTJNN Gud ydar mun giefa þeim hinumeiginn Jordanar, þa skulud þier snua aptur, hvor til sinnar eignar, sem eg hefe giefed ydur.

21. Og eg baud Josua þann sama tijma, og sagde, Þijn Augu hafa sied allt hvad DROTTinn ydar Gud hefur giort þessum tveimur Koiungum, so mun og DROTTJNN giora vid øll þau Kongarijke, sem þu ferdast til.

22. Vered ecke hrædder fyrer þeim, þviad DROTTinn Gud ydar strijder fyrer ydur.

23. Og eg bad DROTTinn þann sama tijma, og sagde,

24. DROTTinn, DROTTinn, þu hefur upp byriad ad syna þijnum Þienara þijna Dyrd, og þijna oflugu Hond, þvi hvor er sa nockur Gud a Himne og Jordu, sem kunne ad giora epter þijnum Verkum og Magt?

25. Laat þu mig fara, og sioa þad goda Landed hinumeigenn Jordanar, þad gooda Fialled og Libanon.

26. Enn DROTTinn vard reidur vid mig fyrer ydar skulld, og bænheyrde mig ecke, Helldur sagde hann til mijn, Laat þad so nægia, seig þu mier þar ecke meira vt af.

27. Stijg þu upp a efstu Hæd fiallsins Pisga, og upplypt þijnum Augum moot Vestrenu, moot Nordrenu, og moot Sudrenu, og moot Austrenu, og sioa þad med Augunum, þvi þu munt ecke ganga yfer þessa Jordan.

28. Og skipa þu Josua, ad hann sie hraustur, og oefadur, þviad hann skal ganga fyrer þessu Folke yfer um Jordan, og skal vtskipta med þeim þvi Landenu, sem þu munt sioa.

29. Og so vorum vier j þeim Dalnum giegnt (a) Hwsenu Peor.

(a) Kyrkia edur Mustere.

# IV. Capitule.

Moses aminner Jsrael ad hallda Bodord, Rettinde, og Setninga Drottins.

Og heyr þu nu Jsrael þau Bodord og þann Riett sem Eg kienne ydur, ad þier giøred þau, so þier meiged lifa, og koma þar jnn, og eignast þad Landed sem DROTTinn GUD Fedra ydra giefur ydur.

2. Þier skulud * ongvo auka vid þad sem Eg byd ydur, og ecke neitt taka þar fra, uppa þad ad þier meiged (a) vardveita Bodordenn DROTTins GUds ydvars, þau sem Eg byd ydur. * Opinb. B. 22, 18. 19.

(a) (Vardveita) Þvi Mannanna Lærdomur hindrar Guds Bodord, og færer oss fra Sannleikanum. Num. 25, 3.

3. Ydar Augu hafa sied hvad Drottinn hefur giort a moot Baal Peor, þvi Drottinn GUD þinn hefur foreidt øllum þeim a medal ydar sem epterfilgdu BaalPeor.

4. Enn þier, sem hafed hallded ydur vid DROTTinn ydarn GUD, lifed enn nu aller samann a þennann Dag.

5. Sioaed, Eg hefe kiennt ydur Bodord og Riettinde, so sem þad DROTTinn GUD minn hefur boded mier, ad þier skylldud giora lijka so j Landenu, þar jnn þier munud koma, til ad eignast þad.

6. So hallded þad nu, og giøred þad, þvi þad mun vera ydar Vitska og Skilningur hia øllu Folke, nær ed þeir heyra øll þesse Bodord, ad þeir munu seigia, Hei, Hvørsu vijs og skinsamur Lydur er þad, og eitt vegsamlegt Folk.

7. Þvi hvar er so Dyrdlegt Folk, hvoriu Guderner hafa so nalæger verid, so sem DROTTinn (b) GUD vor, so opt sem vier aakøllum hann?

(b) GUd heyrer vorar Bæner.

8. Og

8. Og hvar er eitt so mikels hattar Folk, pad er hafe so Riettferduga Skickun og Bod, sem allt þetta Logmaaled er, þad sem eg legg j Dag framm fyrer ydur.

9. Tak þier nu vara, og vardveit þijna Saalu vel, so ad þu forgleymer ecke þeim Giorningum sem þijn Augu hafa sied, og pad þeir kome þier ecke wr Hiarta, um alla Lijfsdaga þijna. Og þu skallt kunngiora þa þijnum Bornum og Barna Bornum,

10. Jaa, þann Dag sem þu stodst fyrer DRottni þijnum Gude, j hiaa Fiallenu Horeb, þa er DROTTinn sagde til mijn, Samansafna þu Folkenu fyrer mig, so Eg laate þa heyra mijn Ord, og lære ad oottast mig um alla þa Daga sem þeir lifa a Jordunne, og ad þeir kienne þad Bornum sijnum.

11. Og þier geingud þar framm, og stodud hiaa nedanverdu Fiallenu, og Fialled þad logade allt, midt upp j Himenenn, og þar var Mirkur, Sky og Dimma.

12. Og DRottinn talade vid ydur, midt ur Elldenum, Raustena hans Orda heyrdud þier, enn ongva Mind saaud þier þar, utann Raustena.

13. Og hann kunngiorde ydur þa sinn Saattmaala, hvorn ed hann baud ydur ad giora, sem voru þau Tiju Ordenn, og hann skrifade þau uppa Tvo Steinspiolld.

14. Og DROTTinn baud mier þann sama Tijma, ad Eg skyllde lære ydur Vijsuna og Riettinn, so ad þier skylldud giora þar epter, j þvi Landenu sem þier ferdudust til ad eignast.

15. So vardveited nu ydar Saaler vel, þvi ad þier hafed ongva Mind sied a þeim Deige, þa Drottinn talade vid ydur wr Elldenum, upp a Fiallenu Horeb.

16. So ad þier skulud ecke fordiarfa ydur, og giora ydur nockra Lijkneskiu, sem alijk være nockrum Manne, edur Kvinnu,

17. Edur Kvikfienade a Jordu, edur Fuglum under Himnenum,

18. Ellegar Ormum a Jordunne, edur Fiskunum j Vatnenn under Jordunne.

19. Og ad þu ecke upplyfter þijnum Augum jmoot Himnenum, og alijter ecke Soolena, og Tungled, og Stiornurnar, þann allann Her Himensins, ad þu faller fra mier og tilbidier þau, og þioner þeim, hvor GUD þinn hefur giefed ollu Folke under ollum Himnenum.

20. Enn ydur hefur DROTTinn medtefed til sijn, og wtleidt ydur af þeim Jarnofnenum, þad er wr Egyptalande, so ad þier skylldud vera hans Erfda Folk, so sem þad er nu j Dag.

21. Og DROTTinn vard reidur vid mig, fyrer ydars Giornings Saker, so hann soor, þad ecke skyllda eg ganga yfer um Jordan, og ecke helldur koma j þad Gooda Landed sem DROTTinn þinn GUD mun giefa þier til Arftoku,

22. Helldur hlyt eg ad deya j þessu Lande, og ganga ecke yfer um Jordan, enn þier munud ganga þar yfer um, og eignast þad gooda Landed.

23. So vared ydur nu vid þvi, ad þier forgleymed ecke Saattmaalanum DRottins GUds ydars, þeim sem hann hefur giort vid ydur, og giored ecke Lijkneskiu epter nockre Mind, so sem þad DROTTinn GUd þinn hefur boded.

24. Þvi ad * DROTTinn GUd þinn er einn foreydande Elldur, og eirn vandlaatur GUd. * Ebr. 12, 28.

25. Nær þier aled nu Born og Barna Born, og bwed j Landenu, og þier fordiarfed ydur, og giored ydur Lijkneskiur epter einhvorre Mind, so ad þier giored illa fyrer DROttni Gude ydrum, og reited hann til Reide.

26. Þa kalla Eg j Dag Himen og Jord til Vitnisburdar yfer ydur, ad þier munud snarlega foreydast wr þvi Landenu sem þier fared nu til, yfer um Jordan, ad eignast, þier munud ecke leinge bwa þarjnne, helldur munud þier verda j eyde lagder.

27. Og

27. Og DROTTinn mun j sundurdreifa ydur a medal Þiodanna, so ad þier skulud verda einn lijtels hattar Flockur a medal Heidingianna, til hvorra ad DROTTinn mun utreka ydur.

28. Þar muntu þiona þeim Skurgodum sem eru giörd med Manna Hondum, Trie og Steinum, sem hvorke kunna ad sioa nie heyra, eta nie luckta.

29. Enn nær ed þu leitar þar DROttins Guds þijns, þa skalltu finna hann, ef þu leitar hans af ollu þijnu Hiarta, og allre þinne Saalu.

30. Nær ed þu fær Angist, so ad aller þesser Hluter koma yfer þig a þeim sijdurstu Dogum, þa skalltu snua þier aptur til DROTtins Guds þijns, og hlyda hans Raust.

31. Þviad DROTTinn GUD þinn er eirn Miskunsamur GUD, hann mun ecke yfergiefa nie forðiarfa þig, hann mun og ecke forgleyma þeim Saattmaala, sem hann soor Fedrum þijnum.

32. Spyrst þu fyrer um þa umlidnu Tijma, um þa sem vered hafa fyrer þig, j fra þeim Deige ed GUD skapade Mannenn a Jordina, j fra einum Enda til annars, under Himnenum, hvort ad þar hefur nockurn Tijma skied so mikell Hlutur, edur hafe slijkt fyrre heyrst,

33. Ad nockurt Folk hafe heyrt Guds Rodd tala af Elldenum, so sem ad þu hefur heyrt, og lifer þo samt?

34. Eda hvort GUD hefur til reynt nockurn Tijma, ad ganga jnn og taka sier eitt Folk, midt a medal Lydsins, fyrer Freistaner, fyrer Taakn og Dasemdar Giorninga, fyrer Strijd og fyrer Vollduga Hönd, og fyrer eirn vtriettann Armlegg, og fyrer so Ofurliga Giorninga, so sem DROTTinn GUD ydar hefur giort þad alltsamann ydar vegna j Egyptalande fyrer þijnum (c) Augum?

(c) (Augsyn) Auditum, þad er med Skyenu og Stolpanum.

35. Þetta hefur þu sied, so ad þu viter, ad DROTTinn er alleina GUD, og eingenn annar.

36. Hann hefur laated þig heyra sijna Raust af Himne, ad hann villde kienna og þier undervijsa. Og hann hefur laated þig sioa sinn hinn mikla Elld a Jordu, og þu hefur heyrt hans Ord vr Elldenum,

37. Af þvi ad hann elskade þijna Fedur, og vtvalde þeirra Sæde epter þa. Og hann vtleidde þig af Egyptalande med sinne Augsyn, og fyrer sinn stoora Krapt.

38. Ad hann villde vtdrijfa fyrer þier stort Foolk, og sterkara enn þu ert, og jnnleida þig, ad giefa þier þeirra Land til Arftoku, so sem ad nu til geingur, a þessum Deige.

39. So skallt þu nu j Dag þad vita, og leggia þier a Hiarta, ad DRottinn er Eirn GUD bæde a Himnum uppe, og a Jordu nidre, og eingenn annar.

40. Ad þu hallder hans Skickaner og Bodord, sem Eg byd þier j Dag, so skal þad ganga þier vel, og þijnum Bornum epter þig, so ad þu meiger leinge lifa j þvi Landenu, sem DRottinn GUD þinn giefur þier æfinnlega.

41. Þa fraskilde Moses Þria Stade, hinumeigenn Jordanar, jmoot Austrenu,

42. Ad sa sem ovart slær sinn Naunga jhel, skyllde flya þangad, ef hann var ecke Ovinur hans aadur fyrre, þa maatte hann flya til einhvors þessara Stada, og hallda so sijnu Lijfe,

43. Sem ad var Bezer j Eydemorkunne, a Sliettlendenu, a medal þeirra Rubenita, og Ramoth j Gilead, sem liggur j Ettlid Gad, og Golan j Basan, j Manasses Ætt jord.

44. Þetta er Logmaaled, sem Moses framm sette fyrer Israels Born,

45. Þad er sa Vitnisburdurinn, Skickunenn, og Riettur enn, sem Moses sagde til Israels Barna, þa þeir voru utfarner af Egyptalande,

46. Hinumeigenn Jordanar j Dalnum, gagnvart Hwse Peor, j Lande Sihons, Kongsins þeirra Amorita, sem sat j Hesbon, hvorn

ed Moses og Israelis Born sloou, þa er þeir voru komnir af Egyptalande,

47. Og eignuduft so hans Land. Og so lijka þad Landid Kongsins OGs af Basan, þeirra tveggia Konga Amorita, sem voru hinumeigenn Jordanar, imoot Austrenu,

48. J fra Aroer, sem liggur vid Lækiarbackann Arnon, allt inn til Fiallsins Sion, þad er Hermon.

49. Og allt þad Sliettlended hinu megenn Jordanar til Austurs, og inn til Siafarins, a þvi Sliettlendenu, fyrer nedann hioa Fiallenu Pisga.

# V. Capitule.

GUds Tiju Laga Bodord itrekast.

Og Moses kallade allann Israel, og sagde til þeirra, Heyr þu Israel þau Bodord, og Riettinn, sem eg tala i Dag fyrer ydar Eyrum, læred þau og halldeð þau, so ad þier giored þar epter.

2. DRottinn GUD vor giørde eirn Saattmaala vid oss i Horeb.

3. Og hann hafde ecke giort þennann Saattmaala vid vora Forfedur, helldur vid oss, sem hier erum aller lifande til a þessum Deige.

4. Hann talade vid oss fra Auglite til Auglitis, vor Elldenum, uppa Fiallenu.

5. Eg stood þann sama Tijma a millum DRottins og ydar, ad eg skyllda kunngiora ydur Ord DRottins, þviad þier vorud hræddir fyrer Elldenum, og geingud ecke uppa Fialled, og hann sagde.

6. Eg er DROTTinn Gud þinn, sem vtleidde þig af Egyptalande, af Prældoms Hwsenu,

7. Þu skallt ecke hafa adra Gude fyrer mier.

8. Þu skallt ongva Lijkneskiu giora þier epter neirne Mind, hvorke a Himnum uppe, nie a Jordu nidre, eige helldur i Vatnenu under Jordunne,

9. Þu skallt ecke tilbidia þau, og eige þiona þeim. Þviad eg er DROTTinn Gud þinn, eirn Vandlaatur Gud, vitiande Illsku Fedranna a Bernunum, i þann þridia og fiorda Ættlid, þeirra sem mig hata,

10. Og eg audsyne Miskun vid margar Þusunder þeim sem mig elska, og mijn Bodord hallda.

11. Þu skallt ecke * vanbrwka Nafn DROTTins Guds þijns, þviad DROTTENN mun þann ei ohegndann laata sem hans Nafn vanbrwkar. * Matth. 5, 34.

12. Þu skallt hallda Sabbaths daginn, so þu helger hann, So sem þad DROTTINN Gud þinn hefur boded þier.

13. Sex Daga skalltu Erfida, og giora allann þinn Verknad.

14. Enn sa Siounde Dagurenn er Drottins Guds þijns Sabbath, Þu skallt þa ecke neitt Erfide fremia, ecke helldur Sonur þinn, eige helldur Dotter þijn, ecke helldur þinn Þionustumadur, og eige þijn Þionustu Kvinna, eige þinn Uxe, og eige þinn Asne, og eige helldur nockur af þijnum Gripum, og eige helldur hinn Framande, sem ad er innann þinna Portdyra, So ad þinn Þionustu Madur, og þijn Ambaatt, meige hvijla sig, lijka sem þu.

15. Þviad þier skal til hugar koma, ad þu hefur og vered eirn Præll i Egyptalande, og DROTTinn Gud þinn leidde þig vt þadann med Vollduge Hond, og vtriettum Armlegg. Þar fyrer hefur DROTTinn Gud þinn boded þier, ad þu skyllder hallda Sabbaths Daginn.

16. Þu skallt heidra Fodur þinn og Modur þijna, So sem DROTTinn Gud þinn hefur boded þier, so ad þu kunner leinge ad lifa, og ad þad meige þier vel ganga i Landenu, þvi sem DROTTinn Gud þinn mun giefa þier.

17. Þu skallt ecke i hel slaa.

18. Þu skallt ecke Hoordom drya.

19. Þu skallt ecke stela.

20. Þu skallt ecke Lingvitne mæla a moote Naunga þijnum.

21. Þu skallt ecke girnast Hwsfreyu

Naaunga þijns. Þu ſkallt ecke gyrnaſt a þijns Naaunga Hws, Akur, Þionuſtu-Mann, Þionuſtu Kvinnu, Uxa, Aſna, edur nockud þad hann aa.

22. Þeſſe eru þau Ord ſem DROTTinn talade til alls Mannfiolda ydvars, a Fiallenu, wr Elldenum, Skyenu, og Mirkrenu, med hvarre rauſt, Og jook þar øngvo vid, og ſkrifade þau a tvær Steintoblur, og fieck mier þær.

23. Enn þa þier heyrdud Roddena, wr Dimmunne, og Fialled brann j Elldenum, geingud þier til mijn, aller Fyrermenn a medal ydvarra ætta, og ydrer Ølldungar, og ſogdu.

24. Sioa þu, DROTTinn Gud vor hefur laated oſs ſiaa ſijna Dyrd, og ſitt Tignar vellde, og vier heyrdum hans Rauſt wr Elldenum. Vier ſaaum j Dag, ad Gud talar vid Mennena, og þeir hallda þo Lijfenu,

25. Og hvar fyrer ſkulum vier nu deya, ſo þad þeſſe hinn mikle Elldur ſkule nu foreyda oſs? Ef ad vier heyrum nu leingur Rauſtena DROTTins Guds vors, þa deyum vier.

26. Þvi hvad er allt Holld þeſs, ad þad kunne ad heyra Rauſt Lifanda Guds tala wr Elldenum, ſo ſem vier, og hallda Lijfenu?

27. Gack þu framm, og heyr allt hvad DROTTinn Gud vor ſeiger, og ſeig þu oſs þad, vier viljum heyra og giora þad, allt hvad DROTTinn Gud vor talar vid þig.

28. Þa DROTTinn heyrde ydar Ord, ſem þier toludud vid mig, ſagde hann til mijn, Eg hefe heyrt Ord þeſſa Folks, ſem þad talade til þijn, þad er allt Gott hvad þeir hafa talad.

29. Ach! hefde þeir ſoddann Hiarta ad ottaſt mig, og ad hallda oll mijn Bodord, um þeirra lijfdaga, So ad þeim mætte vel ganga, og þeirra Børnum eylijfleгana.

30. Gack þu burt og ſeig þu þeim, Ganged heim j ydar Landtiolld,

31. Enn þu ſkallt ſtanda hier fyrer mier, ſo ad eg tale vid þig oll Bodord, Setninga og Riett, ſem þu ſkallt kienna þeim, ſo ad þeir giore þar epter, j Landenu ſem eg mun giefa þeim ad eignaſt.

32. So hallded þad nu, ad þier giored lijka ſem DROTTinn Gud ydar hefur boded ydur, og vijked hvorke til hægre nie vinſtre Handar.

33. Helldur ganged j ollum Vegum, ſem DROTTinn Gud ydar hefur boded ydur, So ad þier meiged lifa, og ydur vel vegne, og lifed leinge j þvi Landenu ſem þier ſkulud eignaſt.

# VI. Capitule.

Utſkijring þeirrar Firſtu Bodorda Toblu um Elſkuna til Guds.

Þeſſe eru þau Loginn, og Bodordinn, og Riettindenn, ſem DROTTinn Gud ydar hefur boded, ad þier ſkulud læra, og giora þau j þvi Landenu, ſem þier nu jnn fared til ad eignaſt.

2. Ad þu ſkallt ottaſt DROTTinn Gud þinn, og hallda oll hans Riettinde og Bodord, þau ſem ad eg byd þier, Bæde þu og þijn Born, og þijn Barnaborn, um alla ydra Lijfdaga, So ad þier meiged leinge lifa.

3. Og þu Iſrael ſkallt heyra og vardveita þetta, og giora þar epter, So ad þier gange vel, og þu meiger fiolgaſt miklu meir, ſo ſem þad DROTTinn Gud Fedra þinna hefur lofad þier þvi Lande, ſem Miolk og Hunang Flytur j.

4. * Heyr þu Iſrael, DROTTinn Gud vor er einn Einungis DROTTinn.

* Matth. 4, 10. c. 22, 37. Marc. 12, 29. 30. Luc. 4, 8. c. 10, 27.

5. Þu ſkallt elſka DROTTinn Gud þinn af ollu þijnu Hiarta, af allre Ønd þinne, og af ollum þijnum Formætte.

6. Og þeſſe Ord ſem eg byd þier i Dag, ſkallt þu leggia upp a Hiartad,

7. Og þu ſkallt (a) bryna þau alltiafnt fyrer Børnum þijnum, og ræda um þau, nær ed þu ſitur j þijnu Hwſe, og nær ed þu geingur um fareнn veg, nær ed þu leggur þig nidur, edur ſtendur upp.

(a) (Bryna) Jdka þad, og opt leſa, ſo ad eige rydge þad

þad nie falle a þad, helldur þad sie jafnan j minningu nytt og skiært. Þviad þess meir sem Menn handtiera Guds Ord þess ferskara og skiærara verdur þad, enn hvar þad ecke jdkast, þar gleyma Menn þvi jafnsnart, og þar misser þad sinn Krapt.

8. Og þu skallt binda þau til merkis a þijna Hønd, og þau skulu vera þier Minningar teikn fyrer þijnum Augum,

9. Og þu skallt skrifa þau a þijna Dyrastafe, og a Dyrnar.

10. Nær ed DROTTinn Gud þinn leider þig jnn j þad Landid, sem hann hefur svared þijnum Fedrum, Abraham, Isaac og Jacob, ad giefa þier stoora og agiæta Stade, hvoria ed þu hefur ecke uppbiggt,

11. Og Hwsenn full med alls hattud Audæfe, þau sem þu hefur ecke upp fyllt, og ut-hoggna Brunna, þa sem þu hefur ecke uthøggved, og Vijngarda og Oliugarda, þa sem þu hefur ecke plantad, so ad þu ætur og verdur mettur,

12. Þa vara þig vid þvi, ad þu gleymer ecke DROTTni, þeim sem vt leidde þig af Egyptalande, af Prældoms Hwsenu,

13. Helldur skalltu ottast DROTTinn Gud þinn, og þiona henum, og sveria vid hans Nafn.

14. Og þu skallt ecke epterfilgia annarlegum Gudum, þess Folksins sem kringum ydur er.

15. Þviad DROTTinn Gud þinn er eirn Vandlætur Gud, a medal þijn, So ad Reide DROTTins Guds þijns upp æsist ecke yfer þier, og afmae þig af Jordu.

16. Þier * skulud ecke freista DRottins Guds ydvars, so sem ad þier freistudud hans j Massa, * Matth. 4, 7. Luc. 4, 12.

17. Helldur skulud þier hallda Bodord DROTTins Guds ydvars, og hans Vitnisburde, og hans Riettinde, þau sem hann hefur boded.

18. So ad þu giorer þad sem gott og Riettvijst er fyrer Augum DROTTins, So ad þier meige vel vegna, og ad þu meiger jnn fara, og eignast þad gooda Landid, hvørt ed DROTTinn hefur svarid þijnum Forfedrum,

19. Ad hann skule vt drifa alla þijna Ovine fyrer þier, so sem þad DROTTinn hefur sagt.

20. Nær ed Sonur þinn spyr þig nu ad j Dag eda a Morgun, og seiger, Hvada Vitnisburdum, Boodum og Riettindum er þad, sem DROTTinn Gud vor hefur boded ydur?

21. Þa skallt þu seigia til Sonar þijns, Vier vorum Prælar Pharaonis j Egyptalande, og DROTTinn hann vtleidde oss af Egyptalande med Volldugre Hond,

22. Og DROTTinn giorde stoor og jll Takn og Furdu verk, yfer Egyptalande og Pharaone, og yfer øllu hans Hwse, fyrer vorum Augum.

23. Og hann leidde oss vt þadann, So ad hann jnnleidde oss, og giæfe oss þad Land sem hann hafde svared Forfedrum vorum.

24. Og DROTTinn hefur boded oss ad giora epter øllum þessum Riette, ad vier skulum ottast DROTTinn Gud vorn, So ad oss gange vel alla vora Lijfdaga, so sem þad geingur nu þennann Dag.

25. Og þad skal vera vort Riettlæte fyrer DROTTni vorum Gude, ef ad vierholldum og giorum øll þesse Bodord, eins og hann hefur boded oss.

## VII. Capitule.

*Israels Born mattu ecke giora Saattmaal edur teingiast vid Jnnbyggendur Canaans.*

Nær ed DROTTinn Gud þinn jnnfærer þig j Landed, j hvørt þu munt jnnkoma ad eignast þad, og vtdrijfur fyrer þier margar Þiooder, sem eru þeir Hethitar, Girgositar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar, Sio Þiooder, sem eru stærre og sterkare enn þu ert.

2. Og nær ed DROTTinn Gud þinn ofurgiefur þier þær, so ad þu slær þær,

Þa

Þa skalltu bannfæra þær, ad þu giorer ongvann Saattmaala vid þær, eige helldur audsyner þeim nockra Naad.

3. Þu skallt ongvar Mægder giora vid þær, þu skallt ecke giefa þeirra Sonum þijnar Dætur, og þeirra Dætur skulud þier ecke taka til Handa ydrum Sonum.

4. Þviad þær koma ydrum Sonum til ad falla fra mier, ad þeir þione annarlegum Gudum, So mun þa Reide DROTTins grenjiast yfer ydur, og afmaa ydur skiotlegana.

5. Helldur skulud þier giora so vidur þa, þeirra (a) Alltare skulud þier nidurbriota, þeirra Stoder j sundursloa, þeirra Lunda af hoggva, og þeirra God j Ellde uppbrenna,

(a) Stalla.

6. Þviad þu ert DRottni þijnum GUde eitt Heilagt Folk. Og DRottinn GUd þinn hefur vtvaled þig til Folks sijns Eigendoms, vt af ollu Folke þvi sem er a Jordu.

7. Ecke hefur DROTTinn medteked og vtvaled ydur fyrer þad, ad þier værud meire enn allar adrar Þioder, þvi þu ert hin minnsta medal allra Þioda.

8. Helldur af þvi, ad hann hefur elskad ydur, og þad hann hiellde sinn Eid, sem hann hafde svared ydar Forfedrum, þa hefur hann vtleidt ydur med volldugre Hende, og frelsad þig vt af þvi Prældoms Hwse, af Pharaonis Hendi, Kongsins af Egyptalande.

9. So skallt þu nu vita, þad DRottinn GUd þinn er Einn GUd, einn Trær fastur GUd, sem helldur Saattmaala og Miskunseme j Þusund Lidu, vidur þa sem hann elska, og hans Bodord vardveita,

10. Og endurgielldur þeim sem hann hata, fyrer sijnu Auglite, so ad hann fyrerfare þeim, og hann forsoomar ecke ad endurgiallda þeim fyrer sijnu Auglite, sem hann ad hatre hafa.

11. So halltu nu þau Bodordenn, þa Lagasetninga, og Riettinde, sem eg byd þier j Dag, ad þu giorer þar epter.

12. Og nær ed þier heyred þessa Logmaals Setninga, og hallded þa, og giored þar epter, þa mun og DROTTinn GUd þinn hallda þann Saattmaala og Miskunseme, sem hann hefur svared þijnum Forfedrum,

13. Og hann mun elska, blessa, og margfallda þig. Og hann mun blessa þinn Lijfs Avoxt, og þann Avoxtenn þijns Lands, þitt Korn, þitt Vijn, þitt Vidsmior, Avoxtenn þinna Kwa, og þann Avoxtenn af þijnum Saudum, j þvi Landenu sem hann hefur svared Forfedrum þijnum, ad giefa þier.

14. Þu munt blessadur vera yfer allt Folk, þar skal eingenn vera ofrioſamur a medal þijn, og eige helldur a medal þijns Fienadar.

15. DRottinn mun j burt taka fra þier allann Siukdom, og leggia ongvann vondann Egyptskann Krankleika a þig, sem ad þu veitst vel, og hann mun leggia hann uppa alla þijna Haturs Menn.

16. Þu munt uppsvelgia allt þad Folk, sem DROTTINN GUd þinn mun giefa þier: Þu skallt ecke vægia þvi, og ecke þiona þeirra GUdum, þviad þad mun þier verda til eirnrar Taalsnoru.

17. Enn ef ad þu seiger j þijnu Hiarta, Þetta Folk er fleyra enn eg er, hvornenn kann eg ad vtdrijfa þad?

18. Þa vert ecke hræddur fyrer þeim. Hugsa þu hvad GUd þinn hefur giort Pharaoni og ollum Egyptalands Monnum,

19. Fyrer þær miklu Freistaner, sem þu saast med Augunum, og fyrer þau Taakn og Stoormerke, hvornenn þad DROTTinn GUd þinn vtleidde þig med volldugre Hond, og vtriettum Armlegg. So mun og Drottinn þinn giora ollu þvi Folke sem þu ert hræddur vid.

20. Og DRottinn GUd þinn mun senda (b) Geitahame a medal þeirra, þar til ad þad verdur allt j eydelagt sem epter er orded, og sig hefur geymt fyrer þier.

(b) Geitihamer eru Flugur lijkar Jarnsmidum.

21. Vert ecke hræddur vid þa, þviad DROT-

DROTTinn GUD þinn er med þier, sa hinn Mikle og Ogurlege GUD.

22. DRottinn GUD þinn mun foreyda þessu Folke fyrer þier, þann eina epter þann annann. Þu kannt ecke broadlega wtdrijfa þad, so ad Skoogdyrenn verde ecke ofmörg j mvote þier j Landenu.

23. DROTTinn GUD þinn mun uppgiefa þa fyrer þier, og mun sloa þa nidur med miklu Mannslage, allt þar til er hann hefur foreydt þeim.

24. Og hann mun giefa þier þeirra Konunga j þijnar Hendur, og þu skallt foreyda þeirra Nöfnum under Himnenum, þar skal eingenn kunna ad standa moot þier, þar til þu hefur foreydt þeim.

25. Þu skallt uppbrenna med Ellde Lijknesske Skwrgoda þeirra, og þu skallt ecke gyrnast a þad Gull edur Silfur sem þar er a, ellegar ad taka til þijn nockud þar wt af, so ad þu misgrijper þig ecke þar wti. Þviad soddann er fyrer DRottni Gude þijnum ein Svivirding.

26. Þar fyrer skalltu ecke bera þa Svivirding jnn j þitt Hwß, ad þu verder ecke forbannadur so sem ad þad sama er, helldur skalltu hafa einn Vidbiod og Hrilling vidur þvi, þviad þad er bannsett.

# VIII. Capitule.

Jsraels Börn moatu ecke gleyma GUDs Velgiörningum.

Þier skulud hallda öll þau Bodord sem Eg byd ydur j Dag, so ad þier giöred þar epter, uppa þad þier meigid lifa, og fleyre verda, og innkoma ad eignast þad Landed sem DROTTinn hefur svared ydar Forfedrum.

2. Og þier skal til Hugar koma allur soa Vegur, sem DROttinn GUD þinn hefur leidt þig j giegnum, a þessum Fiorutijge Aarum j Eydemörkenne, ad hann villde audmykia og reyna þig, so ad þad yrde auglioft, hvad j þijnu Hiarta være, hvort þu munder hallda hans Bodord, edur ei.

3. Hann audmykte þig, og liet þig hungra, og gaf þier Man ad eta, sem hvorke þu edur þijner Forfedur þecktu, so ad hann villde loata þig vita, þad * Madurenn life ecke alleinasta af Braudenu, helldur af öllu þvi sem wtgeingur af Munne DROTTins.

* Matth. 4, 4. Luc. 4, 4.

4. Þijn Klæde hafa ecke af Alldre slitest a þier, og þijner Fætur hafa ecke þrwtnad j þesse Fiorutijge oar.

5. So kanntu nu ad vidurkienna j þijnu Hiarta, ad Drottinn Gud þinn hefur uppfædt þig, lijka sem þad ad einn Madur uppfæder Son sinn.

6. So vardveit þu nu Bodordenn DRottins GUDs þijns, ad þu ganger a hans Vegum, og oottest hann.

7. Þviad Drottinn Gud þinn innleidde þig j eitt gott Land, j þad Landed sem Læker, Uppsprettubrunnar, og Stoduvötn jnne eru, sem framm fliota hioa Fiöllonum, og j Dolunum,

8. Eitt Land, þar ed Hveite, Bygg, Vijnvider, Fikiutrie, og Granataeple inne eru, eitt Land, þar ed Vidsmiörs Trien, og Hunoang vaxa wti,

9. Eitt Land, þar þu jnne hefur noog Braud ad eta, og þig þrytur ecke neitt, eitt Land, hvors Steinar ad eru Joarn, þar ed þu kannt ad höggva Moalm wr Fiöllonum.

10. Og nær þu hefur Matar neytt og ert mettur, ad þu þa lofer DROTTenn GUD þinn, fyrer þad gooda Landed, sem hann hefur giefed þier.

11. So vara þig nu vid þvi, ad þu forgleymer ecke DROTTni GUde þijnum, j þvi, ad þu vardveiter ecke hans Bodord, Riettinde og Lagasetninga, sem eg byd þeir j Dag,

12. Ad þa nær ed þu hefur nu eted, og ert mettur, og þa þu hefur uppbiggt prydeleg Hwß, og þu byr j þeim,

13. Þijn Naut og þijner Sauder, Silfur og Gull, og allt þad þu hefur, oavaxtar sig,

14. Ad þitt Hiarta stære sig þa ecke og forgleyme DRottni þijnum GUde, sem wtleidde þig af Egyptalande, af Prældoms Hwsinu.

15. Og leidde þig j giegnum hina miklu og hrædelegu Eydemörku, þar sem ad voru brennande

nande Hoggormar og Scorpiones, og ecke utann Þurkur og Vatnsleysur, og hann liet Vatn uppspretta af hørdum Steine tilhanda þier.)

16. Og fædde þig med Man j Eydemorku, af hvøriu þijner Forfedur vissu ecke neitt ad seigia, ad hann so audmykte og reynde þig, ad hann giorde þier so þar epter til goda.

17. Þu hefder ellegar mꜹtt seigia j þijnu Hiarta, Mijn magt sialfs, og stirkur minna Handa hefur orkad mier þessa Megtuga Giørnings.

18. Helldur þad þu minnest a DRottinn GUD þinn, þviad hann er sa sem þier giefur Krapt til ad giora so mikels hꜹttar Giørninga, uppa þad, ad hann villde hallda sinn Sꜹttmꜹla, sem hann hefur svared þijnum Forfedrum, so sem þad geingur nu til a þessum Deige.

19. Enn forgleymer þu DROTTNJ GUde þijnum, og epterfilger annarlegum GUdum, og þionar þeim, og tilbidur þa, þa vitna eg yfer ydur j Dag, ad þier skulud med øllu eydeleggiast.

20. Lijka sem þeir Heidingiarner, hvørium ed DROTTinn foreydde fyrer ydar Augsyn, so lijka skulud þier og eirnenn fyrerfarast, af þvi þier hafed ecke hlyduger vered Raustenne DROTTins GUds ydar.

## IX. Capitule.

GUd vill afmꜹ Innbiggendur Canaans fyrer saker þeirra Gudleysis.

Heyr þu Jsrael, þu nunt j Dag ganga yfer um Jordan, so ad þu kunner jnn ad koma, og under þig ad leggia þær Þioder, sem ad eru stærre og sterkare enn þu, stoora Stade, upp mꜹrada allt j Himenenn,

2. Eitt stoort, hꜹtt Folk, Enakims Børn, hvøria ed þu hefur þeckt, og heyrt gieted, hvør kann ad standa jmoote Enaks Børnum?

3. So skalltu vita j Dag, ad DROTTinn GUD þinn geingur fyrer þier, eirn foreydandi Elldur, hann mun foreyda þeim, og underleggia þa fyrer þier, og hann mun j burt drijfa þa, og fyrerkoma þeim snarlega, so sem þad DROTTinn hefur tilsagt þier.

4. Nær ed DROTTinn GUD þinn hefur nu wtdrifed þa fyrer þier, so seig þu ecke j þijnu Hiarta, DROTTinn hefur jnnleidt mig til ad eignast þetta Land, fyrer mijns Riettlætis saker, þviad DROTTinn j burtdrijfur þessa Heidingia fyrer þier, fyrer Saker þeirra Ogudlegs Athæfis.

5. Þvi þu kiemur þar ecke jnn, til ad eignast þeirra Land, vegna þijns Riettlætis, og ecke fyrer þijns Hiartans Riettvise saker, helldur wtdrijfur DROTTinn GUD þinn þessa Heidingia fyrer þier, vegna þeirra sialfra ogudlegs Athæfis, so þad DROTTinn villde hallda þau Ord, sem hann soor þijnum Forfedrum, Abraham, Jsaac, og Jacob.

6. So skalltu nu vita, ad DROTTinn GUD þinn giefur þier ecke þetta gooda Landed ad eignast, fyrer þijns Riettlætis Saker, af þvi, ad þu ert eitt hardhnackad Folk.

7. Hugleid þu þad, og gleym þvi ecke, hvornenn ad þu reitter DROTTinn Gud þinn til Reide a Eydemørkenne. J fra þeim Deige ed þu forst wt af Egyptalande, allt til þess er þier komud hingad til þessa Stadar, þa hafed þier vered DROTTni ohlyduger.

8. Þviad j Horeb reittud þier DROTTJNN so miøg, ad hann j Reide villde þa j eyde hafa lagt ydur.

9. Þa eg var upp geingenn a Fialled, ad medtaka þau Steinspiølldenn, þær Sꜹttmꜹlans Toblur, sem DROTTinn giorde vid ydur, og eg var þar a Fiallenu j Fiorutijge Daga og Fiorutijge Nætur, og eg ꜹt ecke Braud, og drack ecke Vatn.

10. Og DROTTinn gaf mier tvær Stein Toblur, sem voru skrifadar med Guds Fingre, og þar a øll þau Ord sem DRottinn talade vid ydur a Fiallenu af Elldenum, a þeim Deige sem þier vorud þar til samans komner.

11. Og þa ed þeir Fiorutijge Dagar og

fiorutijge Nætur voru lidnar, þa gaf DROttinn mier Tvo Steinspiolld Saattmaalans,
12. Og sagde til mijn, Statt upp, far þu snarlega ofann hiedan, þviad þitt Folk, sem þu wtleidder af Egyptalande, hefur sannlega misgiort, Þeir eru þegar afgeingner þeim Veige sem eg baud þeim, Þeir hafa giort sier eitt steypt Lijkneske.
13. Og DROTTinn sagde til mijn, Eg sie ad þetta Folk er eitt hardsvijrad Folk,
14. Laattu mig vera, so ad eg foreyde þeim, og afmaae þeirra Nafn under Himnenum, Eg vil giora eitt stærra og sterkara Folk wt af þier enn þetta er.
15. Og sem eg snere mier, og gieck ofann af Fiallenu, sem logade med Elld, og hafde þau Tvo Saattmaals Spiolldenn j mijnum baadum Hondum.
16. Þa leit eg vid, Og sioa, þa hofdud þier misgiort vid DRottinn ydarn Gud, j þvi ad þier giordud ydur einn steyptann Kaalf, og vorud þa þegar afgeingner af þeim Veigenum, sem DROTTinn baud ydur.
17. Þa greip eg bæde Spiolldenn, og fleygda eg þeim af baadum Hondum, og j sundur braut þau fyrar ydar Augum.
18. Og Eg fiell framm fyrer DRottinn, so sem j firstu, j fiorutijge Daga, og fiorutijge Nætur, og eg aat ecke Braud, og eg drack ecke Vatn, fyrer allra ydvara Synda saker, sem þier hofdud misgiort, þad þier giordud soddan Illsku-giorning, fyrer DROTTni, ad reita hann so til Reide.
19. Þviad eg var hræddur fyrer þeirre Reide og Heiptar bræde, medur hvorre ad hann var til Reide egndur yfer ydur, svo ad hann villde afmaa ydur, Enn DROTTinn bænheyrde mig og so j þad sama Sinn.
20. Og DROTTinn vard miog reidur vid Aaron, so ad hann villde afmaa hann. Enn eg bad þann sama tijma fyrer Aaron.
21. Enn ydar Synd, þann Kaalfenn sem þier hofdud giort, tok eg, og brennda hann upp j Ellde, og j sundur braut hann, og eg molade hann j sundur j smaatt, þangad til ad hann vard ad Dupte, og eg kastade þvi Duptenu j þann Læk, sem þar rann ofann af Fiallenu.
22. Lijka so giordud þier DROTTinn og reidann j Thabera, og Massa, og j hinum Girndargrofunum.
23. Og þa ed hann sende ydur wt af Kades Barnea, og sagde, Fared upp og eignest þad Landed sem eg hefe giefed ydur, þa vorud þier ohlyduger Munne DROTTins Guds ydars, og trwdud ecke a hann, og hlyddud ecke hans Raust.
24. Þviad þier hafed vered DROTTni ohlyduger, so leinge sem þad eg hefe þeckt ydur.
25. Þa fiell eg framm fyrer DROTTinn j fiorutiju Daga, og fiorutijge Nætur, a hvorium eg laa þar, þviad DROTTinn sagde, ad hann villde afmaa ydur.
26. Enn eg bad DROTTinn og sagde, DROTTenn, DROTTenn, fordiarfa ecke þitt Foolk, og þijna Arfleifd, sem þu frelsader med þijnum mikla Krapte, og wtleidder af Egyptalande med Volldugre Hond.
27. Minnstu a þijna Þienara, Abraham, Isaac, og Jacob, Alijt þu ecke Hardwd og Illskufullt Athæfe og misgiorder Folks þessa,
28. So ad þad Land skule ecke seigia, af hvoriu þu wtleidder oss, DROTTinn gat ecke jnn leidt þa j þad Landed sem hann lofade þeim, og hefur þvi wtleidt þa, ad hann vard þeim Reidur, ad hann so nidur drepe þa j Eydemorkenne.
29. Þviad þeir eru þitt Folk, og þijn Arfleifd, hvort ed þu wtleidder med Stoorum Krapte, og med þijnum Utriettum Armlegg.

# X. Capitule.

Jsraels Born uppørvast til ad elska Gud.

Af þeim sama tijma sagde DROTTinn til mijn, Uthogg þu þier Tvo Steinspiolld, sem ad þau hin fyrre voru, og kom til mijn uppa Fialled, og gior þier eina Ork af Trie,

2. Þa

2. Pa vil eg skrifa þau Ordenn a Spiolldenn, sem voru a hinum fyrrum, sem þu brautst j sundur, og þu skallt leggia þau j Orkena.

3. Pa giorda eg eina Ork af Trie, og wthioo Tvo Steinspiolld, lijka sem þau hin fyrre voru, og gieck uppa Fialled, og hafde þau Tvo Steinspiolld j mijnum Hondum.

4. Pa skrifade hann a Spiolldenn, lijka sem þad skrifad var a þeim hinum fyrrum, þau Tiju Ordenn sem DRottinn talade til ydar af Elldenum, uppa Fiallenu, þa ed vier vorum þar tilsamans komner, og DROTTINN fieck mier þau.

5. Og eg snere mier, og gieck ofann af Fiallenu, og lagde Spiolldenn j þa Orkena sem eg hafda giort, ad þau skylldu vera þar wti, lijka sem þad DROTTinn hafde boded mier.

6. Og Israels Born ferduðust j burt af Beroth Bne Jakan til Moser (þar andadest Aaron, og var jardadur, og hans Son Eleasar vard Kiennemadur j hans stad.)

7. So foru þeir þadann og til Gudegoda, og fra Gudegoda til Jathbath, j þad Land sem Lækerner eru.

8 J þann sama Tijma fraskilde DROTtinn Ættkvijsl Levitanna, ad þeir skylldu bera Saattmaals Ork DROTTins, og ad standa fyrer DROTTni, og þiona honum, og lofa hans Nafn, allt til þessa Dags.

9. Þar fyrer skulu Levitarner eckert Hlutskipte eda Arftoku hafa med þeirra Brædrum, þviad DROTTinn er þeirra Arfleifd, so sem þad DRottinn Gud þinn hefur lofad þeim.

10. Og eg stod þa, sem aadur fyrre, j Fiorutijge Daga, og Fiorutijge Nætur, a Fiallenu, og DROTTINN bænheyrde mig j þad sama Sinne, og villde ecke fordiarfa þig.

11. Enn hann sagde til myn, Tak þig upp, og far hiedann, ad þu ganger fyrer Folkenu, ad þad meige jnnkoma, og eignast þad Landed, sem eg hefe svared ad giefa þeirra Forfedrum.

12. Nu Israel, Hvors krefur DROttinn Gud þinn af þier? Utann þess, ad þu skuler oottast DRottinn Gud þinn, so ad þu gangera ollum hans Vegum, og elsker hann, og þioner DRottni Gude þijnum af ollu þijnu Hiarta, og af allre Saalu,

13. So ad þu hallder hans Bodord og hans Riettinde, sem eg byd þier j Dag, uppa þad þier skule vel vegna.

14. Sia þu, Himenenn, og aller Himnanna Himnar, og Jordenn, og allt þad hvad þar er jnne, þa er DRottins Guds þijns,

15. So hefur hann alleinasta hast giedþeckne til þinna Forfedra, so ad hann elskade þa, og hefur utvaled þeirra Sæde epter þa, ydur yfer allt Folk, so sem þad er nu þennann Dag.

16. Þar fyrer umskiered nu Yferhwd ydars Hiarta, og vered ecke hiedann j fra hardsvirader.

17. Þviad DRottinn Gud ydar er eirn Gud yfer ollum Gudum, og eirn DRottinn yfer ollum Drottnum, eirn mikels-haattar Gud, Volldugur og hrædelegur, og * virder ecke neins Personu, og þiggur ongvar Mwtur,

* Giornb. Post. 10, 34: Rom. 2, 11. Gal. 2, 6. Eph. 6, 9. Col. 3, 25. 1 Pet. 1, 17.

18. Og giorer Fodurlausum Bornum og Eckium riettann Dom, og elskar hina Framande, so ad hann giefur þeim Mat og Klæde.

19. Þar fyrer skulud þier og elska hina Framande, þviad þier hafed og Framande vered j Egyptalande.

20. Þviad DROTTinn Gud þinn skalltu oottast, honum skalltu þiona, hann skalltu adhyllast, og vid hans Nafn skalltu sveria.

21. Hann er þinn Lofstyr, og þinn Gud, sem hefur giort so mikla og hrædelega Hlute hia þier, sem þijn Augu hafa sied.

22. Þijner Forfedur foru ofann j Egyptaland, Siotijge Saaler, enn nu hefur DRottinn Gud þinn fiolgad þig, so sem Stiornur a Himne.

# XI. Capitule.

Hvar fyrer Israels Born ættu ad elska Gud, og hallda hans Bod.

So skalltu nu elska DRottinn Gud þinn, og hallda hans Logmaal, Setninga, Riettinde, og Bodord, alla þijna Lijfdaga,

2. Og medkiennid j Dag, þad sem ydar Born vita ecke nie hafa sied, Einkum, sem er Typtan DRottins GUds ydvars, hans Dyrd, þar til hans Vollduga Hond, og otriettur Armleggur,

3. Og hans Stoor Undur og Dadsemdar Verk, sem hann giørde medal Egyptskra Manna, a Pharaone Egypta Konge, og a ollu hans Lande,

4. Og hvad hann hefur giort vid þa Magtena Egyptskra Manna, vid þeirra Vagna og Vijghesta, þa ed hann leidde Vatned j þvi Rauda Hafe yfer þa, þann Tijd þeir foru epter ydur, og DRottinn foreydde þeim allt til þessa Dags.

5. Og hvad hann hefur giort vid ydur j Eydemorkenne, allt til þess ad þier komud j þennann Stad.

6. Og hvad hann giørde vid Dathan og Abiram, þa Sonu Eliabs, Sonar Rubens, hvornenn þad Jordenn opnade sinn Munn og svelgde þa j sig, med þeirra Heimkinne og Tialldbvodum, og ollu þeirra Gotse, sem þeir hofdu aflad, midt a medal alls Israels.

7. Þviad ydar Augu hafa sied þau miklu Dadsemdarverk DRottins, sem hann hefur giort,

8. Þar fyrer skulud þier hallda oll þau Bodord sem Eg byd ydur j Dag, so ad þier mættud stirkter verda jnn ad koma, og ad eignast þad Landed sem nu fared þier til, jnn ad taka,

9. Og ad þu meiger leinge lifa j þvi sama Lande sem DRottinn hefur svared þijnum Forfedrum, ad giefa þeim og þeirra Sæde, eitt Land þar Miolk og Huncang flytur j.

10. Þvi þad Land sem þu kiemur til ad eignast, er ecke sem Egyptaland, af hvoriu þier erud vtfarner, þar er þu sialfur saader þijnu Sæde, og hlautst sialfur ad bera Vatn a þad, sem a annann Kaalgard.

11. Helldur hefur þad Fioll og Dale, sem Doggenn af Himnum mun vokva.

12. A hvoriu Lande ad DRottinn Gud þinn hefur giætur a, og Augu DRottins Guds þijns alijta þad med jafnade, j fra Upphafenu aarsins, og allt til enda.

13. Ef ad þier hlyded nu mijnum Bodordum, sem eg byd ydur j Dag, so ad þier elsked DRottinn Gud ydvarn, og þioned honum af ollu Hiarta, og af allre Saalu,

14. Þa vil eg giefa ydar Lande Regn, i tilheyrelegann tijma, bæde sijdla og snemma, so ad þu jnn safner þijnu Korne, þijnu Vijne, og Vidsmiore.

15. Og eg vil giefa þijnum Fienade Gras af haganum, so ad þier skulud eta, og verda sadder.

16. Enn þier vared ydur vid þvi, ad þier laated ecke ydar Hiortu ahlydast ad vijkia fraa, og þiona framande Gudum, og tilbidia þa.

17. Og þad Reide DRottins gremiest yfer ydur, og laate aptur Himenenn, so ad þar kome ecke Regn, og Jordenn giefe ecke sinn Avoxt, og ad þier foreydest þa snarlega, burt af þvi gooda Landenu, sem DRottinn hefur giefed ydur.

18. So root-fested nu þesse Ord j Hiartanu, og j ydar Saalum, og binded þau til merkis a ydar Hendur, ad þau sieu ein minning fyrer ydar Augum.

19. Og kienned þau Bornum ydar, so ad þu taler um þau, nær ed þu situr j þijnu Hwse, edur geingur farinn Veg, nær þu leggur þig nidur, og nær ed þu stendur upp,

20. Og skrifa þau a Dyra stafe þijns Hwss, og a þijnar Dyr.

21. So ad þu og þijn Born meige leinge lifa j þvi Landenu, sem DROTtinn hefur svared Forfedrum þijnum, ad giefa þeim, so

so leinge sem Dagar af Himnenum vara a Jordunne.

22. Þvi ef ad þier halldeð oll þesse Bodord, sem eg byd ydur, og giöred þar epter, ad þier elskeð DROTTinn Gud ydarn, og ganged a ollum hans Vegum, og hylleſt hann ad,

23. Þa mun DRottinn utdrijfa allt þetta Folk fyrer ydur, so ad þier skulud under ydur leggia stærra og sterkara Folk enn þier erud.

24. Og hvor sa Stadur sem þier setied ydar Fætur aa, þa skal hann vera ydar Eign, j fra Eydemorkenne, og j fra Fiallenu Libanon, og j fra þvi Vatnenu Phrath, allt ut til þess ytsta Hafsins, þa skal vera ydar Landamerke.

25. Þar skal eingenn kunna ad standa j mote ydur. Hræðslu og Skielfing af ydur mun DRottinn koma, lata yfer oll þau Lond, um hvor þier reised, so sem hann hefur sagt ydur.

26. Sioa þu, eg framm set fyrer ydur j Dag Blessanena og Bolvanenna,

27. Blessanena, ef ad þier hlyded þeim Bodordum DRottins Guds ydars, sem eg byd ydur j Dag,

28. Enn Bolvanena, ef þier hlyded ecke Bodordum DRottins Guds ydars, og vijked af þeim Veigenum sem eg byd ydur j Dag, so ad þier epter filged annarligum Gudum, sem þier þeckid ecke.

29. Nær ed Drottinn Gud þinn jnnleider þig j þad Landed, þa þu kiemur jnn til ad eignast þad, Pa skalltu uthroopa Blessanena uppa Fiallenu Grizim, og Bolvanena uppa Fiallenu Ebal,

30. Hvor ad eru hinumeigenn Jordanar, a þeim Veigenum mot Vestrenu j Canaans Lande, þeirra sem bwa a þvi sliettlendenu giegnt Gilgal, hia Lundenum More.

31. Þviad þu skallt ganga yfer um Jordan, so ad þu komer jnn þangad, til ad eignast Landed sem DRottinn Gud ydar hefur giefed ydur, ad þier skulud eignast þad, og bwa þar jnne.

32. Þar fyrer gæted ad þvi, ad þier giored epter ollum þeim Bodordum og Riettindum, sem eg legg fyrer ydur j Dag.

## XII. Capitule.

*Hvar, og Hvernig Gud villde vera Dyrkadur af Israel.*

Þesse eru þau Bod og Riettinde sem þier skulud hallda, ad þier giored þar epter j þvi Landenu, sem DRottinn Gud Fedra þinna hefur giefed þier til eignar, so leinge sem þier lifed a Jordunne.

2. Nidurbrioted ad Velle alla þa stade, þar sem Heidingiarner (þeir ed þier skulud under ydur leggia) hafa þionad þeirra Gudum uti, bæde a haafiollum, og a smaa Hædum, edur under þeim bloingudum Vidartriaanum.

3. Og nidur rijsed þeirra (a) Stalla, og j sundur brioted þeirra Stoolpa, og upp brenned med Ellde þeirra Lunda, og j burt taked Lijkneske þeirra Afguda, og foreyded þeirra Nofnum af þeim sama (b) Stad.

(a) Alltare.

(b) (Stad) þad er, Jerusalem.

4. Þier skulud ecke giora DRottni Gude ydar soddann,

5. Helldur j þeim stad sem DRottinn Gud ydar hann utvelur, a medal allra ydar Kinkvijsla, ad hann vilie lata sitt Nafn þar bwa, þar skulud þier epter spyria, og þangad skulud þier koma.

6. Og flytia þangad ydart Brenneoffur, og adrar ydar Foorner, og ydar Tijunder, og þad Upphafningaroffur ydvara Handa, og ydar Heit, og ydar sialfkrafa Foorner, og þa Frumburde ydvars Stoorfienadar og Saudfiaar.

7. Og þar skulud þier eta fyrer DRottni Gude ydar, og vera glader af ollu þvi sem þier og ydart Heimkinne bered þangad, hvar med DRottinn Gud þinn hefur blessad þig.

8. Þier skulud ecke giora neitt soddann, sem vier giorum hier j Dag, hvor epter þvi sem honum sialfum þyker riett vera,

 9. Þviad

9 Þviad þier erud enn ecke jnn komner til Hvijldarennar, eige helldur til Arfleifdarennar, sem DRottinn Gud þinn mun giefa þier.

10. Enn þier skulud ganga yfer um Jordan, og bwa j Landenu þvi sem DRottinn Gud ydar mun Hlutskipta ydur til Arftoku, og mun giefa ydur Hvijld fyrer øllum ydar Ovinum, allt umkring ydur, og þier munud bwa Ugglauser.

11. Nær ed DRottenn Gud ydar wtvelur nu eirn stad, þar hans Nafn skal bwa, þa skulud þier hafa þangad allt þad sem eg byd ydur, ydart Brenneoffur, adrar ydar Foorner, ydar Tijunder, ydart Handanna Upphafningaroffur, og øll ydar Heit sem þier lofed sialfkrafa DRottni,

12. Og þier skulud glader vera fyrer DRottni Gude ydar, þier og ydrer Syner, og ydar Dætur, og ydrer Pionustu Menn, og Pionustu Kvinnur, og Levitarner sem eru jnnann ydvara Stadar-Dyra, Þviad þeir hafa øngva Hlutdeild, edur Arftoku med ydur.

13. Vara þig vid þvi, ad þu offrer ecke þijnu Brenneoffre j øllum þeim stødum sem þu sier,

14. Helldur j þeim stad sem DRottinn wtvelur, a medal eirnrar af þijnum Kinkvijslum, þar skalltu offra þijnu Brenne-Offre, og giøra allt þad eg byd þier.

15. Þo moattu sloatra og Kiøt eta jnnann allra þinna Dyra, epter allre Lystingu þinnar Soalar, epter DRottins Guds þijns Blessan, sem hann hefur giefed þier, bæde hinn hreine og hinn ohreine meiga eta þar af, sem af einu Roadyre og Hirte.

16. Þo so, ad þu eter ecke Blooded, helldur wthheller þvi a Jordena sem Vatne.

17. Enn ecke moatt þu eta jnnann þinna Stadar dyra af Tijundenne þijns Kornsæðis, þijns Vijns, þijns Vidsmiørs, nie af þeim Frumburdenum þinna Kwa, þijns Saudfioar, eda nockud af þeim Aheitum sem þu hefur lofad, edur af þijnu Sialfkrafa offre, edur af þinnar Handar Upphafningaroffre.

18. Helldur skalltu soddann eta fyrer DROTTni þijnum Gude, j þeim stad sem DROTTinn Gud þinn wtvelur, þu og þinn Sonur, þijn Dootter, þinn Pionustu Madur, þijn Pionustu Kvinna, og þeir Levitarner sem eru jnnann þinna Borgarhlida. Og skallt vera gladvær fyrer DROTTni Gude þijnum, af øllu þvi sem þu ber þangad.

19. Og vara þig vid þvi, ad þu yfergiefer ecke Levitana, alla þa Daga þu lifer a Jordu.

20. Nær ed DROTTinn Gud þinn giører þijn Landamerke vijdare, so sem þad hann hefur tilsagt þier, og þu seiger, Eg vil eta Kiot, af þvi ad þijn Soala hefur Lysting til ad eta Kiøt, þa et Kiøt sem þijna Soalølldungis lyster.

21. Enn ef sa Stadurenn er langt j burtu fra þier, sem DROTTinn Gud þinn hefur wtvaled, ad loata sitt Nafn þar byggia, þa sloatra af þijnum Nautum, edur Saudfie, sem DROTTinn hefur giefed þier, lijka sem eg hefe boded þier, og et þad jnnann þinna Stadar Dyra, epter allre Lysting þinnar Soalar.

22. Lijka sem þad Madur hann etur eitt Roadyr, edur eirn Hiort, so moattu þad eta, bæde sa hinn hreine og hinn ohreine meiga eta þad til lijka.

23. Ad eins tak vara, ad þu eter ecke Blooded, þviad Blooded er Soalenn, þar fyrer skalltu ecke eta Soalena med Kiotenu.

24. Helldur skallt þu wthella þvi a Jordena sem Vatne,

25. Og þu skallt ecke eta þad, so ad þier meige vel vegna, og þijnum Børnum epter þig, ad þu hafer giørt þad sem riettferdugt er fyrer DROTTni.

26. Nær ed þu villt Heilagt giøra þad nockud sem þier til heyrer, eda heiter þu nockru, þa skalltu taka þad, og flytia til þess stadar sem DROTTinn hefur wtvaled,

27. Og

27. Og lát þar offra þijnu Brenneoffre med Kiøte og Bloode, uppa DROTTins Guds þijns Alltare. Og þu skallt vothella Bloodenu af þijnu Offre, uppa DRottins Guds þijns Alltare og eta Kiøted.

28. Og siá þu til, og hlyd øllum þessum Ordum sem eg byd þier, so ad þad meige þier vel vegna, og þijnum Bornum epter þig æfenlega, ad þu hefur þad giort, hvad riettferdugt og þacknæmelegt er fyrer Drottni þijnum Gude.

29. Nær DRottinn Gud þinn foreyder fyrer þier þeim Heidingiunum, sem þu ferdast nu til under þig ad leggia, og þu byr þar, og eignast þeirra Land,

30. Þa vara þig vid, ad þu faller ecke j Snøruna, epter þeim, sijdann þad þeir voru foreydder fyrer þier, og ecke sinner þeirra Gudum, og seiger, Lijka so sem ad þetta Folk þionade þeirra Gudum, So vil eg og giora.

31. Þu skallt ecke so breita fyrer DROttni Gude þijnum. Þviad þeir giørdu þeirra Gudum allt þad sem svijvirdulegt er fyrer DROTTni, og þad sem hann hatar, Þviad þeir hafa og upp brennt j Ellde sijna Sonu og Dætur, fyrer þeirra Gudum.

32. Þier skulud hallda allt þad eg byd ydur, ad þier giøred þar epter, Þier skulud øngvo auka þar vid, og ecke neitt taka þar j frá.

## XIII. Capitule.

Straff (I) eins Fals-Propheta; (II) Þess er tælde adra; (III) Þeirrar Borgar sem dijrdkade Fals-Gude.

I. Ef ad nockur Spáamadur ellegar Draumspekingur rijs upp a medal ydar, og giefur þier eitthvad Teikn, edur nockud Furdulegt.

2. Og þad Teikn edur Stoormerke framm kiemur, sem hann sagde þier fyrer, og hann seiger, Látum oss epterfilgia (a) annarlegum Gudum, sem þier þecked ecke, og þiona þeim.

(a) (Annarlegum) þesse Spáamadur kienner jmoot gamallre og stadfestre Kienningu, og vill (þar hann nefner hier annarliga Gude) ecke nægiast med gamla Lærdomenn, þessum skal ecke trua, þo hann giøre Jardteikner, enn j 18. Cap. 22. fordæmist sá Spáamadur sem ecke kienner j giegn þeim Firsta Lærdome, helldur kienner med nyann Lærdom. Þessum ber ad stadfesta sinn Lærdom med Jardteiknum, eda hitt, hann heyrist ecke.

3. Þa skalltu ecke hlyda Ordum þess sama Spáamanns eda Draumspekings, þviad DROTTINN ydar GUD hann freistar ydar, ad hann vill reyna, Hvort þier elsked hann, af øllu Hiarta, og af allre Sálu.

4. Þviad þier skulud epterfilgia DRottni GUde ydar, og ottast hann, og hallda hans Bodord, og hlyda hans Raust, og þiona honum, og hyllast hann ad.

5. Enn sá Spáamadur edur Draumspekingur skal deya, af þvi, ad hann vill burt snua ydur j fra Drottni GUde ydar, sem votleidde ydur af Egyptalande, og frelsad hefur ydur af þvi Þrældoms Hwsenu, og hann hefur villt þig af þeim Vegenum sem DRottinn GUd þinn hefur boded þier ad ganga a, so ad þu kunner ad skilia fra þier þad hid Vonda.

II. 6. Nær ed þinn Broder, Sonur þinnar Modur, ellegar Sonur þinn, eda Dotter þijn, ellegar þijn Hwsfreya j Fadme þijnum, eda Vinur þinn, þann þu elskar sem þitt Hiarta, rædur þier heimuglega, og seiger, Látum oss fara og þiona annarlegum Gudum, sem hvorke þecker þu nie þijner Forfedur,

7. Sem eru a medal þess Folksins, sem j kringum ydur er, hvort ad þeir eru helldur nærre þier edur fiærre, j fra einum Jardar endanum, allt til eins annars.

8. Þa samþyck þad ecke med honum, og hlyd honum ecke ad. Og þitt Auga skal ecke

vægia hønum, og þu skallt hønum (b) ecke miskunsamur vera, edur skyla hønum.

(b) (Ecke miskunsamur vera) þad heiter ad elska GUd framm yfer alla Hlute.

9. Helldur skalltu drepa hann, þijn Hønd skal vera Firsta yfer hønum, til ad lijflaata hann, og sijdann þar næst Høndenn alls Almugans.

10. Medur Griote skal hann grytttur verda til Dauda, þviad hann villde j burt villa þig j fra DROTTni GUde þijnum, sem utleidde þig af Egyptalande, af Þrældoms Husenu,

11. So þad allur Israel meige þad heyra, og ottast, og taka sier ecke framar fyrer Hendur ad giora seddann Illskuverk a medal ydar.

III. 12. Ef ad þu heyrer um nockurn af þessum Stodum, sem DRottinn GUd þinn hefur giefed þier ad bwa j, þad Menn seigia,

13. Þar eru nockrer af Belials Børnum wtgeingner a medal þijn, og hafa villt Stadarins Innbiggiara, og sagt, Laatum oss fara og þiona annarlegum Gudum sem þier þecked ecke til,

14. Þa skalltu innvirdelega rannsaka, leita og spyriast fyrer þarum. Og ef þad finnst j Sannleika, ad þad sie so vissulegana, ad su Svijvirding sie skied a medal ydar,

15. Þa skalltu sloa Borgarmennena i þeim sama Stad med Sverds eggium. Og bolva þeim med øllu þvi sem þar er inne, og þeirra Fienad, med Sverds eggium.

16. Og þu skallt samansafna øllu þeirra Herfoange oa midt Strætid, og brenna þad upp med Ellde, bæde Stadenn og allt þeirra Herfoang, eitt med ødru, fyrer Drottni þijnum GUde, so ad hann ligge þar j eirnre hrwgu æfinnlega, og biggest sijdann alldrei upp aptur.

17. Og laat ecke neitt af þvi Bannfærda loda þier vid Hendur, so ad DRottinn meige snua sier fra sinne Heiptar Reide, og giefa þier Miskunseme, og vera þier Lijknsamur, og margfallda þig, lijka sem hann hefur svared þijnum Forfedrum.

18. Þvi ad þu hefur heyrt Raust DROTTins GUds þijns, ad hallda øll hans Bodord, sem Eg byd þier j Dag, so ad þu giører þad sem riett er, fyrer DROTTins GUds þijns Augum.

## XIV. Capitule.

(I) Hversu ad Israels Børn ættu ad hegda sier j Harme epter einn Framlidenn; (II) Hvad þau mættu Eta; (III) Hvilijk umhyggia ætte ad berast fyrer Levitanum.

I. 1. Þier erud Børn DROTTins GUds ydars, þier skulud ecke vekia ydur Beniar, eda raka ydur skollotta fyrer ofann Augunn, epter nockurn Frammlidenn,

2. Þvi þu ert eitt Heilagt Folk DROTTins GUds þijns. Og DROTTinn hefur wtvaled þig, ad þu skuler vera hans Eigenndomur, wt af øllu þvi Folke sem er a Jørdu.

II. 3. Þu skallt ecke eta neitt svivirdelegt.

4. Þesse eru þau Dyr sem þier skulud eta, Naut, Sauder, Geitfie,

5. Hiørtur, Hind, Hrein, Steingeit, Einhyrningur, Uruxe, og Elgs Dyr,

6. Og þier skulud eta allt þad Kvikfie sem Klaufirnar sundurskipter og jortrar,

7. Enn þier skulud ecke eta þad sem jortrar, og ecke hefur Klaufer. Ulfalldenn, Hierenn og Kunised, þesse joortra, og hafa þo ecke Klaufer, þau skulu vera ydur ohrein.

8. Enn Svijned, þo ad þad hafe Klaufer, samt þar fyrer, ad þad jortrar ecke, þa skal þad vera ydur ohreint, þier skulud ecke eta Kioted af þeim, og þeirra Hræ skulud þier ecke helldur snerta.

9. Þetta er þad sem þier skulud eta, af øllu þvi sem j Vatnenu er, allt þad sem hefur Sundugga og Hreistur, þad skulud þier eta.

10. Enn þad allt sem ecke hefur Sunduggа, edur Hreistur, þad skulud þier ecke eta, þviad þad er ydur ohreint.

11. Þier meiged eta alla hreina Fugla.

12. Enn

12. Enn þesser eru þeir sem þier skulud ecke eta, Ornenn, Haukurenn,
13. Fiern-Ormurenn, Gammurinn, Griffuglenn, Glentann med sinne Tegund,
14. Og aller Hrafnar med þeirra Tegund.
15. Strutsfuglenn, Natteuglann, Gaukurenn, Smirellenn med sinne Tegund,
16. Hornuglann, Steinuglann, Flædarmwsenn,
17. Neirdromillenn, Skatinn, Alftinn,
18. Storkurenn, Hegrinn med sinne Tegund, Veidehoppann og Svalann,
19. Og aller Fuglar sem skrijda, þa sku-lu fyrer ydur ohreiner vera, og þa skulud þier ecke eta.
20. Eñ þa hina hreinu Fuglana skulud þier eta.
21. Þier skulud ecke neitt hræ eta, þeim hinum Framanda jnnann þinna Port-dyra moattu þad giefa, ad hann ete þad, ellegar þu sel þad einhvorium Framande, þviad þu ert eitt Heilagt Folk DROTTins GUds þijns. Þu skallt ecke sioda Kided a medann þad sygur sijna Modur.
III. 22. Hvort oar þa skalltu fraskilia Tijunda Partenn af ollu þijnu Kornsæde, og oars Grooda, sem jnnkiemur af þijnum Akurlondum,
23. Og þu skallt eta þad fyrer DROttni Gude þijnum, j þeim Stad sem hann wtvelur, ad hans Nafn skule bwa. Tiunder af þijnu Korne, þijnu Vijne, þijnu Vidsmiore, og Frumburdena, af þijnum Nautum og Saudfie, ad þu meiger læra ad ottast DROTTinn GUd þinn, um alla þijna Lijfdaga.
24. Enn nær ed sa Vegurenn er þier oflangur, ad þu gietur ecke bored soddann þangad, þviad sa Stadur er so miog j Fiarska vid þig, sem DROTTinn GUd þinn hefur utvaled, ad hans Nafn skule bwa þar (þviad DROTTinn GUd þinn hefur blessad þig.)
25. Þa sel þad wt fyrer Peninga, og tak Peningana j þijna Hond, og gack til þess Stadar sem DROTTinn GUd þinn hefur wtvaled,

26. Og kaup þar aptur fyrer þa somu Peninga hvad þijn Saal hefur Lysting til, sie þad Naut eda Sauder, Vijn, oafeingur Drickur, eda hvad þad er sem þijn Saal hefur Lyst til, og neyt þess j sama Stad, fyrer Drottni GUde þijnum, og vert gladur, þu og þitt Hwss,
27. Enn þann Levita, sem er fyrer jnnann þinna Portdyra, skallt þu ecke yfergiefa, þvi hann hefur ongva Hlutdeilld edur Arftoku med þier.
28. Þridia hvort oar skalltu fraskilia alla Tijund af þinne Innekt þess sama oarsins, og þad skalltu leggia jnnañ þinna Port-Dyra,
29. So skal Levitenn, sem ongva Arftoku edur Hlutdeilld hefur med þier, og sa hinn Framande og hinn Fodurlause, og Eckiann, sem er jnnann þinna Stadardyra, koma þangad, og eta sig metta, so ad DROTTinn GUd þinn blesse þig j ollum þijnum Handaverkum, sem þu giorer.

## XV. Capitule.

Log (I) um uppgiof þess Siounda Ars; (II) Um Sellvann Brodur; (III) Um Frum-Burde.

I. Þu skallt hallda eitt Frelsunar-oar hvort Siounda oar,
2. Og þad skal so tilganga med þvi sama Frelsunar oarenu, Hvor sem hefur loanad sijnum Noaunga nockud, þa skal hann giefa honum þad kvitt, og krefia þess ecke af sijnum Noaunga, edur af sijnum Brodur, þviad þad kallast Frelsunar-oar DROTTins.
3. Af einum Framanda moattu þad heimta, enn honum skalltu giefa þad Kvitt sem er þinn Broder.
4. Þar skal eingenn Olmusu Madur vera a medal ydar, þviad DROTTinn mun miog blessa þig j þvi Landenu, sem DROTTinn GUd þinn giefur þier til Arftoku ad eignast.
5. Þo so, ad þu alleinasta hlyder Raustenne DROTTins GUds þijns, og hallder oll þesse Bodord, sem Eg byd þier j Dag, so ad þu giorer þar epter.
6. Þviad DROTTinn GUd þinn mun blessa

blessa þig, so sem þad hann hefur sagt til þijn, þa muntu og loana morgu Folke, og þu skallt af engvum loan taka, þu munt drottna yfer morgu Folke, og eingenn skal drottna yfer þier.

7. Ef nockur af þijnum Brædrum er foatækur j einhvoriu[m] Stad j þijnu Lande, sem DROTTinn GUD þinn mun giefa þier, þa skalltu ecke forherda þitt Hiarta, edur til lykia þijna Hond fyrer þijnum foatækum Brodur,

8. Helldur skalltu upplwka þinne Hende fyrer honum og loana honum, epter þvi sem hann hefur þorf til.

9. Vara þig vid þvi, ad þar sie nockur (a) Belials Panke j þijnu Hiarta, sem seiger, Par lijdur snart ad Siounda oarenu, sem ad er Frelsunar oar, og þu lijtur omiskunsamlega til þijns foatæka Broders, og giefur honum ecke par, þa mun hann kalla yfer þier til Drottins, og þad mun verda þier ad Synd,

(a) Ogudlegur

10. Helldur þa * skalltu giefa honum giarnann, og loata þitt Hiarta ecke jdrast þess, ad þu giefur honum, þviad DROTTinn GUD þinn mun þar fyrer blessa þig j ollu þvi sem þu aformar.

* Matth. 5, 42. Luc. 6, 35.

11. Alla Tijma þa munu þar Foatæker vera j Landenu, þvi byd eg þier og seige, Ad þu skuler upplwka þinne Hende fyrer þijnum Brodur, sem þurftugur og Foatækur er j þijnu Lande.

II. 12. Nær ed þinn Broder, einn Ebreskur Madur, edur ein Ebresk Kvinna selur sig, Pa skal hann þiona þier j sex oar, þad Siounda oared skalltu giefa hann frijann og lausann.

13. Og nær ed þu giefur hann frijann, þa skalltu ecke loata hann ganga tomhendtan fra þier,

14. Helldur þa skalltu giefa honum af þijnu Saudfie, af þinne Kornhlodu, og af þinne Vijnþrwgu, ad þu giefer af þvi sem DRottinn Gud þinn hefur blessad þig med.

15. Og minnstu a þad, ad þu hefur og vered einn Þræll j Egyptalande, og ad DRottinn Gud þinn hefur frelsad þig, Pat fyrer byd eg þier j Dag þetta.

16. Enn seige hann þa til þijn, Eg vil ecke j burt fara fra þier, þviad mier er vel vid þig, og þitt Heimkinne, med þvi honum gediast þar vel ad bioa þier,

17. Pa tak eirn Al, og stijng j giegnum hans Eyra upp vid Dyrnar, og loat hann vera so þinn æfinleganu Pionustu-Mann, A somu leid skalltu giora vid þijna Pionustu Kvinnu.

18. Og loat þad ecke þykia þier forþungt, ad þu giefer hann frioalslega lausann, þviad hann hefur þionad þier um sex oar, sem einn Tvøfalldur Daglaunare, So mun DROTTINN Gud þinn blessa þig j ollu þvi, þu giorer.

III. 19. Alla þa Frumburde sem berast af þijnum Kwm og Saudfie, sem er Karlkins, þa skallt þu helga DROTTni Gude þijnum. Pu skallt ecke eria þinn Akur med Frumburde þinna Nauta, og ecke Ullena klippa af Frumburde Saudfioarins,

20. Helldur skalltu neyta þeirra oarlega oars fyrer DRottni Gude þijnum, þu og þitt Hws, j þeim stad sem DROTTinn wtvelur,

21. Enn ef þad er lytt ad nockru, so ad þad er hallt eda blindt, eda hefur nockurn annann Olost a sier, þa skalltu ecke offra þad DROTTni Gude þijnum,

22. Helldur skalltu eta þad jnnann þinna Port-Dyra (Hvort ed þu ert hreinn edur ohreinn) so sem eitt Roadyr, edur eirn Hiort,

23. So ad þu eter ecke Blooded af þvi, helldur wt-hell þvi a Jordena, lijka sem Vatne.

## XVI. Capitule.

Logmoal um þær Priar Storu Hoatijder Arsins.

Pu skallt hyggia ad þeim Moanadenum Abib, ad þu hallder þa DROttni Gude þijnum

num Poaska. Hviad a þeim Moanade Abib wtleidde þig DROTTinn Gud þinn af Egyptalande, a Noattar tijma.

2. Og þu skallt sloatra DROTTni Gude þijnum Poaskum, Naut og Saude, j þeim stad sem DROTTJNN wtvelur, ad hans Nafn skule þar bwa.

3. Þu skallt eckert Syrt eta a þeirre somu Hoatijd, helldur skalltu eta Osyrt Braud Hoatæktarinnar, j Sio Daga, hviad þu foorst af Egyptalande med Hrædslu, Ad þu skuler so minnast a þann Dag sem þu wtfoorst af Egyptalande, um alla þijna Lijfdaga.

4. Þar skal eckert syrt sioast a þeim Sio Dogum, jnnann allra þinna Landamerkia. Og þar skal ecke neitt epter skiliast af þvi Kiotenu, sem ad Kvollde þess Firsta Dagsins sloatrad er, til Morguns.

5. Þu moatt ecke sloatra Poaskum jnnann nockra þinna Stadar-dyra, sem DRottinn Gud þinn hefur giefed þier.

6. Helldur j þeim stad sem DROTTinn þinn Gud mun wtvelia, ad hans Nafn skule þar bwa, þar skallt þu sloatra Poaskum ad Kvollde Dags, þa ed Soolenn geingur under, a þeim tijma þa þu wt foorst af Egyptalande.

7. Og þu skallt sioda, og eta þad j þeim Stad sem DROTTinn Gud mun wtvelia, Og þar epter ad Morgne snua aptur, og ganga heim til þijns Heimilis.

8. Sex Daga skalltu eta Osyrt, sa Siounde Dagurenn er Samkomu-fundur DRottins Guds þijns, þa skalltu ecke neitt erfida.

9. Sio Vikur skalltu reikna, og upphefia ad telia nær ed teked verdur med Sigdenum j Korned.

10. Og þu skallt þa hallda DROTTni Gudi þijnum Viku-Hoatijd, og gief honum sialfviliugar Giafer af þinne hende, epter þvi sem DROTTinn Gud þinn hefur blessad þig.

11. Og þu skallt vera gladur fyrer Gude þijnum DROTTni, þu og þinn Sonur, og þijn Dotter, þinn Þionustu-Madur, þijn Þionustu Kvinna, og Levitinn sem er jnnann þinna Portdyra, sa hinn Framande, hinn Fodurlause, og Eckiann sem ad er hioa þier, j þeim stad sem DROTTinn Gud þinn hefur wtvaled, þad hans Nafn skule þar bwa.

12. Og hugleid þu þad, ad þu hefur og vered einn Þræll j Egyptalande, ad þu hallder og giorer epter þessum Bodordum.

13. Þu skallt hallda Laufskoala Hoatijd j Sio Daga, nær ed þu hefur jnn safnad af þinne Kornhlodu, og af þinne Vijnþrwgu.

14. Og þu skallt vera Gladur a þinne Hoatijd, þu og þinn Sonur, þijn Dotter, þinn Þionustumadur, þijn Amboatt, Levitinn, sa hinn Framande og hinn Fodurlause, og Eckiann sem er jnnann þinna Stadar Dyra.

15. Sio Daga skalltu hallda DRottni Gude þijnum Hoatijdernar, j þeim stad sem DROTTinn mun wtvelia. Hviad DRottinn Gud þinn mun blessa þig j allre þinne jnntekt, og j ollum þijnum Handaverkum, þar fyrer skalltu vera gladur.

16. Þrisvar sinnum a Aarenu skal allt hvad Karlkins er hioa þier auglysast fyrer DROTTni Gude þijnum, j þeim Stad sem DROTTinn mun wtvelia, A þeirre Osyrdra Brauda Hoatijdenne, og a þeirre Vikuhallds Hoatijdenne, og a þeirre Laufskoala Hoatijdenne. Enn eingenn skal þar toomhendtur birtast fyrer DRottni,

17. Hver epter giof sinnar Handar, epter þeirre Blessan, sem Drottinn Gud þinn hefur giefed þier.

## XVII. Capitule.

Hversu ad Konung ætte ad utvelia, og hver hans Idn ætte ad vera.

18. Domara og Valldstiornar-Menn skalltu setia þier j ollum þijnum Borgarhlidum, sem DRottinn Gud þinn mun giefa þier, a medal þinna Kinkvijsla, ad þeir dæme Lydenn epter Riettferdugum Dome.

19. Pu skallt ecke halla Riettenum, þu skallt og ecke alijta nockurs manns Persónu, og ecke helldur Giafer þiggia, þviad Giafernar forblinda Augu Vijsra Manna, og um venda Maalefnum Riettferdugra.

20. Pu skallt eptersilgia þvi sem Riettferdugt er, So ad þu meiger lifa og eignast þad Landed sem Drottinn Gud þinn mun giefa þier.

21. Pu skallt ecke planta nockurn Lund af Triaam, j hioa Alltare Drottins Guds þijns, sem þu giorer þier,

22. Pu skallt ecke uppreisa þier Stolpa, þa ed Drottinn Gud þinn hatar.

XVII. Cap. 1. Pu skallt ecke fornfæra Drottni Gude þijnum neitt þad Naut eda Saud sem hefur nockur Lyte, edur nockurn Lyst a sier, þviad þad er Drottni Gude þijnum ein Andstyggd.

2. Nær ed þar verdur nockur fundenn, Madur edur Kvinna, innann þinna Stadar dyra, sem Drottinn Gud þinn mun giefa þier, sa er jlla giorer fyrer Drottins Guds þijns Augum, so ad hann yfer-tredur hans Saattmaala,

3. Og fer, og þionar annarlegum Gudum, og tilbidur þa, Sie þad Solenn eda Tungled, edur nockud annad af Himensins Her, sem eg hefe ecke boded,

4. Og þetta verdur sagt þier, og þu heyrer þad, þa skalltu vandlega spyria þar ad, Og nær ed þu formerker þad, ad þad er vissulega so j Sannleika, ad soddann Svijvirding er skied j Israel.

5. Pa skalltu laata þann Mann edur Kvinnu, sem soddann Vondsku hefur giort, vtleida af þijnum Port-dyrum, og þu skallt beria þau med Griote, til Heliar.

6. * Epter Tveggia edur Þriggia Manna Vitnisburde þa skal soa deya sem Dauda er verdur, Eingenn skal þar deya epter eins Manns Vitnisburde. * Ebr. 10, 28.

7. Peirra Hønd sem vitnad hafa skal vera hin fyrsta til ad Lijflaata hann, og sijdann Høndinn alls Folksins, ad þu skilier þig so vid þad Vonda.

8. Ef nockurt Þrætumaal verdur þier of þungt yfer ad dæma, a millum Blods og Blods, a millum Sakferlis og Sakferlis, a millum Skadsemdar og Skadsemdar, og hvada Maalum sem þad eru, jnnann þinna Stadar Dyra, þa skalltu hafa þig til Vegar, og fara upp til þess Stadar sem Drottinn Gud þinn mun vtvelia þier,

9. Og koma til Prestanna, og Levitanna, og til þess Domara sem þann sama tijma verdur, og spyriast fyrer af þeim, So skulu þeir seigia þier upp Dominn.

10. Og þu skallt giora þad sem þeir seigia þier fyrer j þeim stad sem Drottinn hefur vtvaled, Og þu skallt giæta, ad þu giorer olldungis þad sem þeir kienna þier.

11. Epter þvi Logmaale sem þeir kienna þier, og epter þeim Domenum sem þeir seigia þier upp, þa skalltu hallda, so ad þu vijker ecke þar j fra, hvorke til Hægre nie til Vinstre Handar.

12. Og ef ad nockur Mann þriotskast so, ad hann vill ecke hlyda Prestenum ad, sem stendur þar j Drottins Guds þijns Embætte, edur Domaranum, sa skal deya, Og þier skulud j burt taka þann hinn Vonda af Israel,

13. So ad Allmuga-folked meige þad heyra, og ottast, og fara ecke framm slijkre Ofdirfd leingur.

14. Nær þu kiemur jnn j þad Landed sem Drottinn Gud þinn mun giefa þier, og eignast þad, og þu byr þar jnne, og seiger so, Eg vil setia eirn Kong yfer mig, so sem allar adrar Pioder hafa hier j kring um mig,

15. Pa skalltu setia þann til Kongs yfer þig, sem Drottinn Gud þinn mun vtvelia. Enn einn af þijnum Brædrum skalltu setia til Kongs yfer þig, þu kannt ecke setia nockurn Framande yfer þig, sem ecke er þinn Broder.

16. Ad eins þad, ad hann skal ecke hallda marga Hesta, og ecke leida Folked j Egypta-

land

land aptur, af þvi hann hefur marga Hesta, epter þvi sem DRottinn hefur sagt ydur, ad þier skulud ecke hiedan j fra ferdast um þennann Veg heimleidis aptur.

17. Hann skal og ecke helldur taka sier margar Eigenkonur, ad hans Hiarta j burt snuest ecke, Hann skal og ecke saman draga mikid Gull og Silfur.

18. Nær ed hann kiemur nu ad sitia j Hææsæte sijns Kongs-Rijkes, þa skal hann taka þetta annad Logmaaled af Prestunum, og Levitunum, og laata skrifa þad j eina Bok.

19. Hun skal vera j hiaa honum, og hann skal lesa þar inne um alla sijna Lijfdaga, So ad hann meige læra ad oottast Drottinn Gud sinn, ad hann kunne ad hallda oll Ordinn af þessu Logmaale og Riettenum, so ad hann giøre þar epter.

20. Hann skal ecke offtæra sitt Hiarta yfer sijna Brædur, og ecke burt vijkia af Bodordunum, hvorke til hægre nie vinstre Handar, ad hann meige leingia sijna Daga j sijnu Kongs Rijke, hann og hans Børn j Israel.

# XVIII. Capitule.

Moses talar (I) um Skylldur Levitanna, (II) um Afgudadijrkun; (III) um þann Stora Spaamann, JEsum Christum.

I Kiennemennerner, Levitarner af allre Kinkvijsl Levi, skulu ongva Hlutdeilld eda Arftoku hafa med Israel, þviad Forner DROTTins, og hans Arftoku skulu þeir eta.

2. Þar fyrer skulu þeir ecke hafa neina Arftoku a medal sinna Brædra, þviad DROTTinn er þeirra Arfleifd, so sem hann hefur sialfur tilsagt þeim.

3. *Enn þad skal vera Prestanna Riettur af Folkenu, og af þeim sem offra, hvort þad er Uxe eda Saudur, Ad Madur skal giefa Prestenum Boogenn, baada Vangana, og Vombina. *1 Cor. 9, 13.

4. Og þann Firsta Groodann af þijnu Korne, þijnu Vijne, og þijnu Vidsmiøre, og þa firstu Ullena sem þu tekur af þijnu Saudfie.

5. Þviad DROTTINN Gud þinn hefur utvaled hann af ollum þijnum Kinkvijslum, ad hann stande framme og þione Nafne DROTtins, hann og hans Syner æfinlega.

6. Nær ed Levitenn kiemur ut af nockru þijnu Porte, ellegar ut af einhvorium Stad, j ollum Israel, þar sem hann er framande, og kiemur epter allre Lysting sinnar Saalu, til þess Stadar sem DROTTINN hefur utvaled,

7. Þa skal hann þiona j Nafne DROttins Guds sijns, so sem aller hans Brædur Levitarner giora, sem þar standa j sama stad fyrer DROTTni,

8. Þeir skulu hafa jafna Hlutdeilld Matarins, fyrer utann þad sem hann hefur af selldu Gotse sinna Fedra.

II. 9. Nær þu kiemur jnn j þad Landed, sem DROTTINN Gud þinn mun giefa þier, þa skalltu ecke læra ad giora þess Folks Svivirdingar.

10. So ad þar finnest ecke hiaa þier sa sem lætur sinn Son, edur Dottur, j giegnum Elld ganga, edur sa nockur sem fer med Spaadoma, edur er Dagveliare, edur sa sem hyggur ad Fugla kvake,

11. Edur Galldramadur, edur Særinga Madur, edur nockur Fithons Anda Forsagnare, eda Teikna-utleggiare, eda sa nockur sem leitar frietta af Daudum.

12. Þvi hvor ed hann giører soddann, hann er ein Svijvirding fyrer DROTTni, og fyrer slijkrar Svijvirdingar saker j burt drijfur DRottin Gud þinn þa fyrer þier.

13. Enn þu skallt vera Ankannalaus fyrer DROTTni Gudi þijnum.

14. Þviad þetta Folk sem þu skallt under þig leggia, þad hlyder Daga utveliurum, og Spaasagnarmonnum, Enn þu skallt

 ecke

ecke so giora fyrer DROTTNI Gude þijnum.

III. 15. * Eirn Spaamann mun DRottinn Gud þinn (a) upp vekia þier, wt af þier og þijnum Brædrum, lijka sem mig, Honum skulud þier heyra. * Gb.Post. 3,22.c.7,37. Luc. 7, 16.

(a) (Uppvekia) Hier verdur heited annare Predikun enn Moses Predikun, su hin sama ma ecke vera Lögmaaled, sem fullkomlega var giefed fyrer Mosen, þar fyrer hlytur þad ad vera Evangelium, og er sa Spaamadur, sem hier avijkur, Eingenn annar enn JEsus Christus sialfur, sem soddann nya Predikun færde hingad a Jördina.

16. Eins sem ad þu badst DRottinn Gud þinn j Horeb, a þeim Deige sem vier vorum til samans þar, og þu sagder, Eige vil eg leingur heyra Raustena DROTTins Guds Guds mijns, og eige optar siaa þann mikla Elldenn, so ad eg skule ecke deya.

17. Þa sagde DROTTINN til mijn, Þeir hafa talad vel.

18. Eg vil uppvekia þeim eirn Spaamann af þeirra Brædrum, lijka sem þu ert, og eg vil leggia mijn Ord i hans Munn, hann skal seigia þeim allt hvad eg byd honum.

19. Og hwor sem eige heyrer mijn Ord, sem hann mun tala j mijnu Nafne, af þeim hinum sama vil eg þess wtkrefia.

20. Nær ed einhvor Prophete dirfest til ad tala þad nockud j mijnu Nafne, sem eg hefe ecke boded honum ad tala, Og jafnvel sa sem talar j annarlegra Guda Nafne, sa hinn same Prophete skal deya,

21. Ef ad þu seiger þa j þijnu Hiarta, Hvornenn kann eg þeckia þad, hvort Ord þad DROTTinn hefur ecke talad?

22. Nær ed Prophetinn talar j Nafne DROTTins, og þar verdur eckert af, og þad kiemur ecke framm, Þad sama er þad Orded sem DROTTinn hefur ecke talad, enn sa same Prophete hefur þad talad wt af sinne eigenlegre (b) Ofdirfd, þar fyrer skalltu ecke Kvijdbug bera fyrer honum.

(b) (Ofdirfd) Hier talar Moses um þann Spaamann sem kiemur upp med nyann Lærdom, ofan a þann gamla og firsta Lærdóminn, þeim hinum sama skal ecke trua wan Teikna, þviad Gud stadfester allt ijd sijn ny Ord med nyam Teiknum, enn aadur j þeim 13. Cap. 2. talar hann um þa Spaamenn sem tala j moot þeim gamla stadfesta Lærdome, hvilijkum skal ecke trua þott þeir eirnenn giörde Teikn, ut supra.

# XIX. Capitule.

Lærdomur (I) um þria Frelses-Stade Hinumeginn Jordanar: (II) um Straff Lingvotta.

I. Nær ed DRottinn Gud þinn hefur nu j eyde lagt Folked, hvorra Land þad DRottinn Gud þinn mun giefa þier, so ad þu eignest þad, og bwer j þeirra Borgum og Hwsum,

2. Þa skalltu fra skilia þriar Borger j Landenu, þvi sem DRottinn Gud þinn mun giefa þier ad eignast.

3. Og þu skallt giora þier Veg til þeirra, og þu skallt j sundur skipta Landamerkium, j þvi Landenu sem DRottinn Gud þinn giefur þier til Arftöku, j þria Hlute, ad hvor sem Mann hefur veiged, meige flya þangad,

4. Og þad skal Sökenn vera, ad hann sem dreped hefur Mann meige flya þangad, so ad hann meige hallda Lijfenu. Nær ed einhvor slær sinn Naaunga j Hel, oforvarande, og hafe hann ecke aadur haft fyrre neitt Hatur a honum,

5. So sem þa, nær ed nockur fer j Skoog med sijnum Naaunga, til ad höggva Vid, og hann wtrietter Hondena med Oxinne til ad höggva Tried, og Oxenn hrytur af skaptinu, og kiemur a hans Naaunga, so hann deyr þar af, þa skal hann flya til einhvors þessara Stada, so hann hallde Lijfenu,

6. So ad (a) Blodhegnarenn veite ecke eptersför Mannslagaranum a medann hans Hiarta er so heitt, og naae honum, med þvi ad Vegurenn er so fiarlægur, og sloae hann, so hann deye, þo ad eingenn Dauda sök være med honum, af þvi hann hafde aadur fyrre ecke neitt Hatur til hans haft,

(a) Eptermaals Madurenn.

7. Þar

7. Þar fyrer byd eg, ad þu j fra skilier þær þriar Borger.

8. Og þar sem DRottinn Gud þinn giører enn vijdare þijn Landamerke, so sem þad hann hefur svared þijnum Forfedrum, og giefur þier allt þetta Land sem hann sagde sig vilia giefa þijnum Forfedrum.

9. (So framt ad þu helldur øll þesse Bodord, so ad þu giorer þar epter sem eg byd þier j Dag, þad þu elsker DROTTinn Gud þinn, og ganger a hans Vegum, alla þijna Lijfdaga) Þa skalltu enn leggia þriar Borger til þessara þriggia,

10. So ad ecke verde vthellt saklausu Bloode j þijnu Lande, sem DRottinn Gud þinn giefur þier til Arftøku, so ad þu verder ecke sekur j soddann Blode.

11. Enn ef ad nockur hefur heipt a sijnum Náunga, og yfer-fellur hann, og vinnur a honum so hann deye, og flyr so j burt til einhvørs þessa Stadar,

12. Þa skulu Olldungarner hans stadar senda þangad, og láta sækia hann þangad, og selia hann j Blood-hefnarans Hendur, so ad hann sie drepinn.

13. Þijn Augu skulu eige vægia hønum, og þu skallt burt-taka þad saklausa Blood fra Israel, so ad þier meige vel vegna.

II. 14. Þu skallt ecke færa aptur a bak Landamerke þijns Náunga, sem ad þeir ed fyrer þier voru hafa sett j þinne Ættleifd, sem ad þu erfer j þvi Landenu, sem ad DROTTINN Gud þinn hefur giefed þier til eignar.

15. Þar skal ecke eitt Vitne alleina framm ganga, ad vitna a moote nockrum, yfer nockurs hváttar Misgiørninge, eda Glæp, hvad hellst Glæp sem þad er ad Madur kann ad giøra, * helldur skal hvør Søk standa j Tveggia edur Þriggia Votta Munne.

* Matth. 18, 16. 2 Cor. 13, 1.

16. Ef ad eitthvort Lingvitne geingur framm ad vitna a moote nockrum, til ad votta uppa hann einhvørn Misgiørning.

17. Þa skulu þeir báder Menn sem Kiærumáled eiga til samans, standa fyrer DROTTni, framme fyrer Prestunum og Domurunum, sem þa eru j þann tijma.

18. Og Domararner skulu innvirduglega rannsaka þad sama, hafe hann þa bored falskann Vitnisburd, j moote sijnum Brodur,

19. Þa skulu þeir giora so vid hann, sem hann hafde hugsad ad giora vid sinn Brodur, so ad þu j burt taker þann hinn Vonda fra þier,

20. Ad þeir hiner adrer sem þad heyra, meige hrædast fyrer þvi hinu sama, og takast ecke a hendur ad giora soddann illt Verk a medal ydar.

21. Þitt Auga skal ecke hlijfa hønum. Lijf fyrer Lijf, Auga fyrer Auga, Tonn fyrer Tonn, Hond fyrer Hond, Foot fyrer Foot.

## XX. Capitule.

Herfarar-Reglur.

Þegar ed þu fer j Strijd a moote þijnum Ovinum, og þu sier, ad þad Folk hefur fleyre Hesta og Vagna enn þu, þa vert ecke hræddur fyrer þeim, þviad DROTTinn GUd þinn, sem vtleidde þig af Egyptalande, er med þier,

2. Nær ed þier komed nu þangad sem Strijded skal standa, þa skal Presturenn framm ganga, og tala fyrer Folkenu og seigia til þeirra,

3. Heyr þu Israel, Þier ganged j Dag j Bardaga mot ydar Ovinum, ydar Hiortu skulu ecke vantreysta, hrædist ecke, og skielfest ecke, og kvijded ecke fyrer þeim,

4 Þviad DROTTinn GUd ydar geingur med ydur, so ad hann vill beriast fyrer ydur, moote ydar Ovinum, til ad hiálpa ydur.

5. Enn Hershøfdingiarner skulu tala til Folksins, og seigia, Hvør sa Madur, sem upp hefur biggt eitt nytt Hws, og hefur enn nu ecke (a) vijgt þad, sa fare j burt, og blijfe j sijnu Hwse, ad hann falle ecke j Strijdenu, og þad eirn annar skule þa vijgia þad.

(a) (Vijgia Hus) þad er, a Ebreskt Máltæke, so miked sem flytia sig j Hus.

6. Hvor sem ad plantad hefur eirn Vijngard, og hefur enn ecke giort hann almennelegann, sa gange j burt, og vere heima, ad hann deye ecke j Strijdenu, og eirn annar skule giora hann almennelegann.

7. Hvor hann hefur trulofad sig eirnre Kvinnu, og hefur enn nu ecke haft hana heim til sijn, sa gange burt, og vere heima, ad hann falle ecke j Strijdenu, og skule þo annar hafa hana heim.

8. Og Hershofdingiarner skulu enn framar tala til Folksins, og seigia, Hvor hann er hræddur og ragur j sijnu Hiarta, gange sa j burt og vere heima, ad hann skule ecke hrædslu full giora Hiortu sinna Brædra, lijka so sem þad hans Hiarta er.

9. Og nær ed Hershofdingiarner hafa nu wt talad sijnu Moale, fyrer Folkenu, þa skulu þeir setia hina Ædstu yfer Herinn fremst fyrer Folked.

10. Nær ed þu fer fyrer nockurn Stad, til ad strijda a mote honum, þa skalltu first bioda þeim Frid.

11. Svarar hann þa til vinsamlega, og lætur upp fyrer þier, þa skal þad Folk sem þar verdur jnne funded, vera þier Skattgilldt og undergiefed.

12. Enn vilie hann ecke hondla fridsamlega vid þig, og vill strijda j giegn þier, þa setstu um hann.

13. Og þa DRottinn Gud þinn giefur þier hann j þijna Hond, þa skalltu med Sverds eggium jhelsloa allt hvad þar er Karlkins jnne.

14. Fyrer utann Konur og Born, og Kvikfie, og allt þad sem þar er j Stadnum, og ollu Herfoange skallt þu skipta a medal þijn, og þu moatt eta wt af Bytenu þinna Ovina, sem DRottinn Gud þinn hefur giefed þier.

15. Lijka so skalltu giora vid alla þa Stade sem liggia langt j burt fra þier, og ecke eru af þeim Stodum þessa Folks.

16. Enn j Stodunum þessa Folksins, sem DRottinn Gud þinn mun giefa þier til Arftoku, skallt þu ecke neitt loata þad lifa sem Andar dreatt hefur,

17. Helldur skalltu foreyda þeim ollum, einkum sem eru þeir Hethitar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar, so sem DRottinn Gud þinn hefur boded þier.

18. Uppa þad, ad þeir skulu ecke læra ydur ad giora epter allre þeirra Svijvirding, sem þeir plaga ad giora til sinna Afguda, og ad þier syndgest ecke vid DRottinn Gud ydarn.

19. Nær ed þu hlytur leinge ad liggia fyrer einhvorium Stad, mote hvorium þu strijder, so ad þu villt yfervinna hann, þa skalltu ecke fordiarfa þau Alldintrie, so ad þu hoggver þau nidur med Oxinne, þviad þu kannt eta Alldine af þeim, þar fyrer skalltu ecke uppræta þau, þviad þau eru Trie a Jordu, enn ecke Menn, ad þau kunne ad vera so eitt Hervirke yfer þier.

20. Enn þau Trie sem Mann kann ecke ad eta af, þau skalltu fordiarfa og uppræta, og biggia eitt Virke þar wt af, j giegn þeim Stadnum sem strijder a mote þier, þangad til þu hefur Walld yfer honum.

## XXI. Capitule.

Løgmaal (I) um Einn sem fyndest Veginn; (II) Um Hertekna Konu; (III) Um Rett hins Frumgetna; (IV) Um Einn oblijdenn Son; (V) Um þann er heingdur være a Tre.

I. Nær ed Mann finnur nockurn þann sem ad er jhel sleigenn j Landenu, þvi sem DROTTinn Gud þinn mun giefa þier ad eignast, og hann liggur a Akrenum, og Mann veit ecke hvor ad hann hefur jhel sleiged,

2. Þa skulu þijner Olldungar, og þijner Domendur utganga, og mæla fra þeim sem jhel er sleigenn, og til þeirra Stadanna sem þar liggia umkring,

3. Hvor sa Stadur sem þar liggur nærst, þa skulu Olldungarner af þeim Stodum taka eina Kvijgu af Hiordinne, þa sem ecke hefur vered erfidad med, og su ed ecke hefur Ok dreiged,

4. Og þeir skulu leida Kvijguna j eirn Hriostu-

Hrioftugann Dal, sem hvorke hefur vered plægdur nie saadur, og j þeim Stad, nidur j Dalnum, skulud þier hoggva af henne Hoalsenn.

5. So skulu Prestarner, Syner Levi, koma þar (þviad DROTTinn GUD þinn hefur vtvaled þa, ad þeir þione honum, og lofe hans Nafn, og um allar Saker, og um allann Skada skal hondlad verda epter þeirra Munne.)

6. Og aller Olldungarner af þeim sama Stad skulu ganga framm til þess hins Vegna, og þvo þeirra Hendur yfer þeirre Kvijgunne, sem Hoalsenn er af hoggvenn j Dalnum.

7. Og skulu andsvara og seigia, Vorar Hendur hafa ecke uthellt þessu Blode, og vor Augu hafa ecke helldur sied þad.

8. Vertu Noadugur þijnu Folke Jsrael, hvort ed Þu DROTTinn hefur frelsad, og legg ecke þetta hid saklausa Blood uppa þitt Folk Jsrael,

9. So verda þeir forlijkter yfer þvi Blode. Þannenn skalltu taka þad saklausa Blood j burt fra þier, so ad þu giorer þad sem riettferdugt er fyrer Augum DROTTins.

II. 10. Nær ed þu fer vt j Strijd, moote þijnum Ovinum, og DROTTinn GUD þinn giefur þa j þijnar Hendur, so ad þu burt leider Hertekna af þeim.

11. Og þu sier a millum þeirra eina hreinliga Kvinnu, og þu fær Lyst til hennar, so ad þu villt taka hana þier til Eigennkonu.

12. Þa haf hana jnn j þitt Hwos, og loat raka j burt hennar Hofud Hoar, og skiera j burt hennar Neglur,

13. Og loat hana færa sig af þeim Klædum sem hun var Hertekenn j, og loat hana sitia j þijnu Hwose og groata sinn Fodur og Modur, einn Moanud, sijdann moattu sofa hioa henne, og taka hana þier til Ekta, og loata hana vera þijna Hwosfreyu.

14. Enn nær ed þu hefur ongvann Þocka til hennar, þa skalltu loata hana j burt fara, þangad sem hun vill sialf, og selia hana ecke fyrer Peninga, nie setia hana vt, þviad þu hefur leiged med henne.

III. 15. Ef ad nockur hefur Tvær Eigennkonur, eina þa hann elskar, adra þa hann hatar, og þær hafa fædt honum Born, bæde hun sem hann elskar, og hinn sem hann hatar, so ad sa hinn Frumgietne Sonurenn heyrer þeirre til sem hann hatar,

16. Og sa Tijme kiemur, ad hann skal vtskipta Arfenum a millum sinna Barna, þa kann hann ecke ad giora hennar Son sem hann elskar, ad þeim Frumgietna Synenum, upp yfer Frumgietnum Syne þeirrar sem hann hatar,

17. Helldur skal hann medkienna hennar Son, hvoria hann hatar, fyrer sinn Frumgietna Son, og giefa honum tvofallt af ollu þvi hann hefur, þvi hann er hans firstur Kraptur, og honum ber ad hafa þann Frumgietningar Riett.

IV. 18. Ef ad nockur hefur eirn þroalyndann og ohlydenn Son, sem ecke vill hlyda sijns Fodurs og Modurs Raust, og nær ed þau aga hann, þa vill hann þo ecke ad helldur vera þeim hlydugur,

19. Þa skal Fader hans og Moder taka hann Hondum, og leida hann fyrer Olldungana Stadarins, og j Þorted þess Stadar.

20. Og seigia til Olldunganna j Stadnum, þesse ockar Son er þriotskufullur og ohlydenn, og vill ecke hlyda ockar Raust, og er eirn Svelgur og Drickiudoare.

21. So sijdann skal Almwgenn j Stadnum gryta hann jhel, og þu skallt so j burt skilia þad vonda fra þier, so ad allur Jsrael meige þad heyra, og oottast.

V. 22. Nær ed nockur hefur giort einhvoria Synd, so ad hann er dauda fyrer verdur, og verdur so lijfloatinn, þad hann er uppheingdur a eitt Trie,

23. Þa skal hans Lijkame ecke vera a Trienu um Nottena, helldur skalltu jarda hann sama Dag. Þviad hann * er bolvadur af

GUde

GUde sem verdur heingdur. So ad þu saurger ecke þitt Land, það sem DROTTinn GUd þinn giefur þier til eignar.

* Gal. 3, 13.

## XXII. Capitule.

Margkonar vereldleg Log.

Þegar ed þu sier þijns Broodurs Uxa eda Saud fara villt, þa skalltu ecke skiotast burt þadann, helldur skalltu leida hann aptur til þijns Broodurs.

2. Enn nær ed þinn Broder er ecke nærre þier, og þu þecker hann ecke, þa skallt þu taka það j þitt Hwß, og hallda þvi so leinge hioa þier, þangad til ad þinn Broder kiemur og leitar epter þvi, so ad þu kunner þa ad faa honum það aptur.

3. So skalltu giora vid hans Asna, vid hans Klædnad, og vid allt það sem tijndt er, sem þinn Broder hann tijner, og finnur þu það, þu maatt ecke hlidra þar hioa.

4. Ef ad þu sier, ad þijns Broodurs Asne, eda Uxe, er dottenn um koll a Veigenum, þa skalltu ecke draga þig j hlie þar fra, helldur hiaalpa honum a Fætur.

5. Ein Kvinna skal ecke bera Karlmans Verju, og Karlmadur skal ecke færa sig j Konu Fot, þviad hann sem það giorer er ein Svijvirding fyrer DROTTni GUde þijnum.

6. Nær ed þu finnur eitt Fugla Hreidur a Veigenum, upp j einhvoriu Trienu, edur a Jordunne, med Ungum edur Eggium, og það Modurenn situr a Ungunum, edur Eggiunum, þa skalltu ecke taka Modurena med Ungunum,

7. Helldur skalltu laata Modurena burt fliuga, og taka Ungana, so ad þier meige vel vegna, og leinge lifa.

8. Nær ed þu upp bigger eitt nytt Hwß, þa gior þier Karma þar umkring, uppa þijnu Þake, so ad þu hlader ecke neinu Bloode yfer þitt Hwß, ef ad nockur fellur þar ofann af.

9. Þu skallt ecke saa þinn Vijngard med marghaattudu Sæde, ad þu ecke helger sodan Sæde til eirnrar uppfyllingar, sem þu hefur nidur saad asamt med Avexte Vijngardsins.

10. Þu skallt ecke eria med einu Naute og einum Asna til samans.

11. Þu skallt ecke færa þig j þau Fot, sem giord eru af Ullu og Lijne til samans.

12. Þu skallt giora þier Bremingiar a þeim fiorum Saumum þinnar Skickiu, sem þu skyler þier med.

13. Nær ed nockur Madur fær sier Eigenkonu, og fær Hatur til hennar, sijdann hann hefur leiged hioa henne,

14. Og leggur henne nockra skomm til, og kiemur henne j vondt rikte, og seiger, Þessa Konu tok eg mier, og þa eg lagde mig hioa henne, þa fann eg ad hun var ecke Mey.

15. Þa skal Fader og Moder þeirrar somu Konu taka hana, og færa hennar Meydoms merke inn fyrer Olldungana j Stadarportenu.

16. Þa skal Fader þeirrar somu Kvinnu seigia til Olldunganna, Eg gaf þessum Manne mijna Dotter til Eigenkonu, Nu er hann ordenn henne reidur,

17. Og leggur henne eina skemmelega Sok til, og seiger, eg hefe funded þijna Dotter ecke Mey vera, Hier eru þessarar minnar Dottur Meydoms merke. So skulu þau breida Klædenn wt, fyrer Olldungum Stadarins.

18. Þa skulu Olldungarner af Stadnum, taka þann Mann, og refsa honum,

19. Og semia af honum Hundrad Silfurpeninga, og giefa þa Fodurnum þeirrar somu Kvinnu, fyrer það hann hefur orikte giort eirnre Jungfru j Israel, og hann skal hafa hana til Eignarkonu, so ad hann ma ecke yfergiefa hana um alla sijna Lijfdaga.

20. Enn eru það Sanninde, ad Kvinnann fannst ecke ad vera Mey,

21. Þa skulu þeir leida hana wt fyrer Dyrnar hennar Fodurs Hwss, og Folked j stadnum skal gryta hana til Heliar, Af þvi ad

ad hun giorde soddan Heimsku-par j Israel, og drijgde Hooran j sijns Fodurs Hwse, Og þu skallt j burt taka soddann Vondskap fra þier.

22. Ef ad nockur finnst med þvi, ad hann liggur hia þeirre Konu sem hefur sinn Eignarmann, þa skulu þau bæde deya, Madurenn, og Konann sem hann hefur hia leiged, og þu skallt j burt taka þad vonda af Israel.

23. Ef ad ein Jungfru er trwlofud nockrum, og eirn Madur hitter hana j Stadnum, og liggur hia henne,

24. Þa skulu þeir leida þau bæde wt fyrer Portinn Stadarins, og gryta þau bæde j hel, Meyuna, af þvi hun kallade ecke, fyrst ad hun var jnnann Stadar, Og Mannenn, af þvi ad hann skammade Ecktakvinnu sijns Naunga, Og þu skallt j burt taka þad Vonda fra þier.

25. Enn ef nockur hitter eina trulofada Mey wt a Landenu, og tekur hana med vallde, og liggur hia henne, Þa skal Madurenn ad eins deya sem hia henne laa,

26. Enn Meyunne skalltu eckert giora, Þviad hun giorde ongva þa Synd, sem Dauda er verd. Helldur so sem þa einhvør setur sig upp j moote sijnum Naunga, og slær hann j hel, eins lijka er og þetta,

27. Þviad hann hitte hana wt a Landenu, og sw hin trulofada Mey kallade, og þar var eingenn sem hialpade henne.

28. Nær ed einhvør hitter þa Mey sem ecke er trulofud, og tekur hana, og liggur hia henne, og þad verdur uppsyst um hann,

29. Þa skal sa sem laa hia henne giefa Fodur hennar Fimmtijge Sicklos Silfurs, og hafa hana sijdann til Eigennkonu, þviad hann vanvirdte hana, Hann ma og ecke yfergiefa hana um alla sijna Lijfdaga.

30. Eingenn skal taka sijns Fodurs Hwsfreyu, og ecke uppfletta sijns Fodurs Hylmingu.

# XXIII. Capitule.

*Hver, og hvad ecke mætte koma In j Herrans Sofnud.*

Þar skal eingenn meiddur Madur, edur Giellldingur jnn koma j DROTTins Samkundu.

2. Þar skal og eingenn Port-Konu son jnn koma j Samkundu DRottins, og ecke epter Tijunda lid, helldur þa skal hann alldrei jnnkoma j Samkundu DROTTins.

3. Ammonitar og Moabitar skulu ecke jnnkoma j Samkundu DRottins, og ecke j Tijunda Lid, þeir skulu alldrei koma þar jnn,

4. Af þvi ad þeir villdu ecke koma j moote ydur a Veigenum, med Braude og Vatne, þann tijd þier foorud af Egyptalande, Og þar ad auk leigdu þeir Bileam son Beor, af Pethor j Mesopotamia a moote ydur, ad hann skyllde bølva þier.

5. Enn DROTTinn Gud þinn villde ecke heyra Bileam, og snere þeirre Bølvaninne um, til Blessunar, Af þvi ad DRottinn Gud þinn elskade þig.

6. Þu skallt ecke bidia þeim Giæfu, nie neins Gods, um alla þijna Lijfdaga.

7. Þu skallt ecke hallda Edomitana fyrer neina Svijvirding, þviad þeir eru þijner Brædur. Þu skallt ecke hallda þa Egyptsku fyrer neina Svijvirding, Þviad þu hefur vered Utlendingur j þeirra Lande.

8. Þau Børn sem þeir gieta j þridiu Ættkvijsl, skulu jnnkoma j Samkundu DRottins.

9. Nær ed þu geingur wt af Herbwdunum, j moote þijnum Ovinum, þa skalltu vara þig vid øllu þvi sem (a) jllt er.

(a) (Jllt er) Ad þu siert ecke sialfur straffanlegur, og so þier til hefndar misser Sigurenn, og verder sleigenn, eins og þad gieck til a Døgum Eli og Sauls.

10. Er þar sa nockur a medal ydar, sem ecke er hreinn, fyrer þad sem hann kann ad hafe hendt um Nottena, Hann skal ganga burt fyrer utann Herbwdernar,

11. Og ecke jnn aptur koma, fyrr enn ad Kvollde, nær ed hann hefur þvegeð sig j Vatne, Og nær ed Sólenn er under geingenn, þa skal hann jnn ganga j Herbuðernar aptur.

12. Þu skallt og hafa eitt Plats fyrer utann Herbuðernar, þangad sem þu kannt ad fara, og giora þijnar Naudsyniar.

13. Og þu skallt hafa eirn lijtenn Spada, og nær ed þu villt setia þig nidur þar ute, þa skalltu grafa þar med, og þa þu hefur giort þijnar Naudsyniar, þa skalltu moka yfer það sem fra þier er geingeð.

14. Þviad DROTTinn Gud þinn geingur a millum þinna Herbuða, til ad frelsa þig, og giefa þijna Ovine fyrer þier, Þar fyrer skulu þijnar Herbuder vera Heilagar, og þar skal ecke neitt skammarlegt siast a medal þijn, ad hann skule ecke snua sier j burt fra þier.

15. Þu skallt ecke selia þann Þræl j sins Herra Hendur, sem flued hefur fra honum til þijn.

16. Hann skal vera hia þier j þeim stad, ut j einum þinna Portdyra, sem hann utvelur sier til gooda, Og þu skallt ecke hondla jlla vid hann.

17. Þar skal eingenn Skiækia vera a mille Jsraels Dætra, og eingenn skammadur Madur a mille Jsraels Sona.

18. Þu skallt ecke bera neina Skiækiu-tilgiof, eda Hunda-verd, j það Hus DROttins Guds þijns, ut j nockurs konar Heitgiofum, þvi það hvortveggia er DRottni Gude þijnum ein Svijvirding.

19. Þu skallt *ecke fremia Okur a þijnum Brodur, hvorke med Peningum, nie med Mat, nie med neinum þeim Hlutum sem ut ma okra. *Luc.6,34.

20. Þann Framanda mættu okra, enn ecke þinn Brodur, so ad DROTTinn Gud þinn skule blessa þig, j ollu þvi sem þu tekur þier fyrer Hendur, j þvi Landenu sem þu skallt jnn koma til ad eignast.

21. Nær þu heiter nockru DRottni Gude þijnum, Þa skalltu ecke giora Dvol a þvi ad enda það, Þviad DRottinn Gud þinn vill krefia þess af þier, og það sama verdur þier ad Synd.

22. Enn heiter þu ongvo, þa er þier það eingenn Synd.

23. Enn hvad sem Frammgeinged er af þijnum Vorum, það skallt þu enda, og giora, lijka sem þu hefur med þijnum Munne heited DRottni Gude þijnum, ut af þijnum sialfs eigenlegum vilia.

24. Nær ed þu geingur j Vijngárd þijns Naunga, þa mættu eta so morg Vijnber sem þig lyster, til þess þu ert mettur, Enn j þitt Kier skalltu ecke neitt leggia.

25. Nær ed þu geingur um Korn Akur þijns Naunga, þa mattu *plocka Axenn med Hendenne, Enn med Sigdunum skalltu ecke neitt skiera þar upp. *Matth.12,1.

## XXIV. Capitule.

Log sem Einkanlega vidvijkia Hus-Stiorn, og Sambyle.

Ef ad einhvor fær sier Konu, og giorer Eigenn-ord vid hana, og hun finnur ecke sijdann Naad fyrer hans Augum fyrer einhvors ohæfa saker, Þa skal hann skrifa eitt *Skilnadar Brief, og fa það j hennar Hond, og lata burt fara af sijnu Heimele.
*Matth.5,31. c.19,7. Marc.10,4.

2. Nær ed hun er so ut drifenn af hans Huse, og geingur j burt, og verdur eins annars Manns Eigenn Kona,

3. Og sa hinn annar Madurenn fær og eirnenn styggd til hennar, og skrifar eitt Skilnadar Brief, og fær það j hennar Hond, og lætur hana j burt fara af sijnu Heimele, Ellegar so, ef ad sa hinn annar madurenn deyr, sem hana tok sier seirna til Eigennkvinnu.

4. Þa ma ecke hennar sa hinn firste Madur, sem hana liet j burtu fara fra sier, taka hana aptur til Eigennkonu, sijdann ad hun er ordenn ohrein, Þviad slijkt er Anstyggd fyrer DRottni, So ad þu skuler ecke giora það

Land

Land synduget, sem DROTTINN Gud þinn giefur þier til eignar.

5. Nær ed nockur hefur teked nu nylega sier Eigennkonu, sa skal ecke ut fara j Striid, og eingenn Pyngsl skulu honum a leggiast. Helldur skal hann være frij j siinu Heimele, eitt Aar um kriing, og vera gladur med sinne Eigennkonu, sem hann hefur teked sier.

6. Þu skallt ecke taka j Pant þa under Kvarnena nie yfer Kvernena, þviad hann setur þier þa Saalena til Panta.

7. Ef ad soa finnst nockur sem j burt stelur einnre Saalu fra siinum Brædrum, Israels Bornum, og setur hana ut, edur selur hana, þa skal sa same Þiofur deya, ad þu so burt taker hid Vonda fra þier.

8. Vara þig vid Spitelsku Plaagu, ad þu hallder og giorer med Athygle allt þad sem Prestarner Levitarner kienna þier, þad skulud þier hallda og giora sem þeir biooda ydur.

9. Hugleid þu hvad DROTTinn GUD þinn giørde vid Mariam a Veigenum, þa ed þier foorud af Egyptalande.

10. Nær ed þu laanar þiinum Naunga nockud, þa skalltu ecke fara jnn j hans Huus, til ad taka Panta af honum.

11. Helldur skalltu standa þar ute fyrer, og hann sem þu hefur laanad nockud, skal bera sinn Pant ut til þiin.

12. Enn ef hann er þurfande, þa skallt þu ecke leggia þig til Svefns med hans Pant,

13. Helldur skallt þu soa honum sinn Pant aptur, nær ed Solenn geingur under, so ad hann meige sofa j siinum Klædum, og blessa þig, og þad mun þier fyrer DROTTni Gudi þiinum verda Riettlæte.

14. Þu skallt * ecke hallda jnne hans launum hiaa þier, sem er Naudþurftugur, og Faatækur, hvort hann er af þiinum Brædrum, edur þeim Utlendingunum, sem ad eru j Landenu hiaa þier, jnnann þinna Portdyra.

* Jac. 5. 4.

15. Helldur skallt þu giallda honum sitt Verkkaup a Deigenum, fyrr enn Sooleun geingur under, þviad hann er faatækur, og skal þar med upphellde veita sinne Saalu, so ad hann kalle ecke til DROTTins a moote þier, og þad sie þier reiknad fyrer Synd.

16. Fedurner skulu ecke deya fyrer Barnanna Saker, og Bornenn ecke fyrer Fedurnar, helldur skal hvor deya fyrer siina Misgiørd.

17. Þu skallt ecke halla Riettenum hins Framanda og hins Fodurlausa, og þu skallt ecke taka Klædnad Eckiunnar j Pant.

18. Þvi þier skal til hugar koma, ad þu varst eirn Þræll a Egyptalande, og DROTtinn GUD þinn frelsade þig þar j fra, hvar fyrer ad eg byd þier, ad þu skuler so giora.

19. Nær ed þu hefur haustirkiad þinn Akur, og hefur forgleymt einu Bindene a Akrenum, þa skallt þu ecke snua þier aptur til ad sækia þad, helldur laat hinn Framanda, og hinn Fodurlausa, og Eckiuna eiga þad, so þad DROTTinn GUD þinn blesse þig j øllum Verkum þinna Handa.

20. Nær ed þu hefur hrist þitt Vidsmiørsvidar Trie, þa skallt þu ecke hrista þad aptur, helldur skulu þeir Fromundu og Fodurlausu og Eckiur eignast þad.

21. Nær ed þu hefur plockad þinn Viingard, þa skallt þu ecke plocka hann aptur, þad skal heyra til þeim Fromundu, Fodurlausu, og Eckiunum.

22. Og þier skal til hugar koma, ad þu varst eirn Þræll j Egyptalande, þvi byd Eg þier, ad þu giorer þetta.

## XXV. Capitule.

Log vidvijkiande verallde legum Stiornar Hætte hiaa Godingum.

Nær ed þar er nockur Þræta nockra Manna a millum, þa skulu Menn hafa þa fyrer Dom, ad þar dæmest a millum þeirra, og laata þann hinn Riettferduga skie riett, og dæma þann Ogudlega Sekann.

2. Og ef sa hinn Ranglaate hefur forþient slog, þa skal Domarenn skipa honum ad leggiast nidur, og laata slaa hann fyrer sier, epter þvi sem hans Misgiord er stoor til.

3. Nær ed Madur hefur giefed honum Fio-

rutiju Hogg, þa skal ecke sloa hann meira, so ad hann verde ecke ofmiog sleigenn, ef ad hønum verda fleyre Hogg giefenn, og ad þinn Broder lijde Mijnkun fyrer þijnum Augum.

4. * Þu skallt ecke mvolbinda þad Nauted sem Korned þresker.

* 1 Cor. 9, 9. 1 Tim. 5, 18.

5. Hvar sem * Brædur bwa hvor hioa ødrum, og eirn af þeim deyr Barnlaus, þa skal Hwsfreyann þess hins Frammlidna øngvann Framande Mann taka þar utann ad, helldur skal hennar eigenn Møagur liggia hioa henne, og taka hana sier til Hwsfreyu, og eiga hana.

*Matth. 22, 24. Marc. 12, 19. Luc. 20, 28.

6. Og þann Firsta Son sem hun fæder, skal hann stadfesta epter sijns Frammlidins Brodurs Nafne, so ad hans Náfn skule ecke wtslettast af Israel.

7. Enn ef sa same Madur vill ecke taka sijna Brodur Kvinnu, til Hwsfreyu, þa skal hun, hans Brodurkona, ganga upp til Portdyranna fyrer Olldungana, og seigia, Minn Møagur hann vill ecke uppvekia sijnum Brodur eitt Nafn j Israel, og vill ecke eiga mig.

8. Þa skulu Olldungarner af Stadnum kalla hann framm og tala til hans. Nær ed hann þa stendur (a þvi) og seiger, Eg vil ecke eiga hana,

9. Þa skal hans Møagkona ganga ad hønum, fyrer Olldungunum, og taka annann Skooenn af hans Footum, og hrækia a hann, og skal svara og seigia, Svo skal Mann giora vid sierhvorn þann, sem ecke vill uppbiggia sijns Brodurs Hws.

10. Og hans Nafn j Israel skal kallast Hws hins Berfætta.

11. Nær ed Tveir Menn deila sijn a millum, og hins annars Eigennkona hleypur ad, og vill hiaalpa Manne sijnum, af hans Hondum sem slær hann, og hun wtrietter þa sijna Hond, og grijpur um hans Leyndar Lim,

12. Þa skalltu hoggva af hennar Hond, og þitt Auga skal ecke vægia henne.

13. Þu skallt ecke hafa j þijnum Seck Tveggia handa Voger, adra stora enn adra litla.

14. Þu skallt ecke helldur hafa j þijnu Hwse Tvenna Mæleaska, eirn stoorann, og annann lijtenn.

15. Þu skallt hafa eina fulla og rietta Vog, og eirn fullann og riettferdugann Mæle Ask, so þu meiger leinge lifa j þvi Lande, sem DROTTinn GUD þinn mun giefa þier.

16. Þviad hvor sem giorer þetta, hann er ein Svijvirding fyrer DROTTni Gudi þijnum, so sem ad aller eru þeir ed jlla giora.

17. Minnstu a þad hvad Amalechitar giordu þier a Veigenum, þa er þier ferdudust ut af Egyptalande,

18. Hvornenn ad þeir riedu a þig a Veigenum, og sloou þa sem aptast geingu, alla þa sem veiker voru, og epter þier fooru, þa þu varst bæde Moodur og Vanmegna, og þeir hræddust ecke GUD,

19. Nær ed DROTTinn GUD þinn giefur þier Hvijld, fyrer ollum Ovinum þijnum kring um þig, j Landenu sem DROttinn GUD þinn giefur þier ad inntaka til Erfda, þa skallt þu med ollu afmaa Minning þeirra Amalechita under Himnenum. Gleym þvi ecke.

## XXVI. Capitule.

Log (I) um þa Firstu Averte; (II) um Tijunder.

I. Nær ed þu innkiemur j þad Land sem DROTTinn GUD þinn mun giefa þier til ad erfa, og þu setst þar ad, og byr þar inne,

2. Þa skallt þu taka þann allskins Firsta Avoxt j Landenu, sa ed kiemur af þeirre Jordunne sem DROTTinn GUD þinn giefur þier, og þu skallt leggia þad j eina Korf, og ganga burt til þess Stadar, sem DROTTinn GUD þinn mun utvelia, ad hans Nafn bwe þar.

3. Og þu skallt koma til þess Kiennemannsins, sem þa er þann Tijd, og seig til hans, Eg

Eg medkienne j Dag fyrer DROTTNI Gude þijnum, ad eg er komenn j þad Land sem DROTTinn soor Fedrum vorum ad giefa oss.

4. Og Presturenn skal taka Korfena af þinne Hende, og setia hana nidur fyrer Alltare DROTTins Guds þijns.

5. Þa skallt þu svara, og seigia, fyrer DROTTni þijnum Gude, Hiner Syrlendsku villdu fyrerfara Fodur mijnum, þa foor hann ofann j Egyptaland, og var þar eirn Utlendingur, med sceatt eitt Folk, og hann vard þar ad stooru, sterku, og fiolmennu Folke.

6. Enn hiner Egyptsku breittu jlla vid oss, og þvingudu oss, og logdu eirn hardann Prældom a oss.

7. Þa kolludum vier til DROTTins Guds Fedra vorra, og DROTTinn heyrde vort Hrop, og sa vora Utlegd, Angist og Anaud.

8. Og wtleidde oss af Egyptalande, med volldugre Hond og wtriettum Armlegg, og med stoorum Skielfingum, fyrer Teakn og Furduverk,

9. Og leidde oss hingad til þessa Stadar, og hefur giefed oss þetta Land, sem Miolk og Hunꝏang flytur jnne.

10. Nu ber eg hingad þann Firsta Avoxt Landsins, sem þu DROTTinn hefur giefed mier. Og þu skallt lꝏta þad vera fyrer DROTTni Gude þijnum, og tilbidia þar DROTTinn Gud þinn,

11. Og giora þig gladann yfer ollu þvi gooda sem DROTTinn Gud þinn hefur giefed þier, og þijnu Heimkinne, þu og Levitenn, og sa hinn Framande sem hiꝏ þier er.

II. 12. Nær ed þu hefur safnad ollum Tijundum tilsamans af allre þinne Jnnrekt, a þvi Þridia Aarenu, þad er eitt Tijunda Aar, þa skallt þu giefa Levitanum, þeim Fromondu, þeim Fodurlausu, og Ekkiunum, ad þeir ete jnnann þinna Portdyra, og verde metter.

13. Svo skalltu seigia fyrer DROTTni Gude þijnum, Eg hefe bored af mijnu Hwse, þad sem helgad er, og hefe giefed Levitanum, Utlendingnum, þeim Fodurlausa, og Ekkiunum, epter ollum þijnum Bodordum sem þu hefur bodid mier, eg hefe ecke yfer troded edur forgleymt þijnum Bodordum.

14. Eg hefe þar einskis af neytt j minne (a) Sorg, og þar ecke neitt afteked j mijnum ohreinleika. Eg hefe ecke neitt giefid til þeirra Daudu þar af. Eg hefe vered Raustenne DROTtins Guds mijns Hlydugur, og hefe giort þad allt sem þu hefur boded mier,

(a) (Sorg) Guds Offur a ad vera Gladværlegt, hreint og Heilagt, þar fyrer ber ecke ad þar af sie neins neytt j Sorg, nie neitt þar af teked j Saurugleika, og ecke it þar af sie giefed til Skwrgoda edur þeirra Daudu. Es. 63,15. Baruch. 2,16.

15. Lijttu ofann hingad af þijnum Heilaga Bwstad af Himnum, og blessa þu Jsrael þitt Folk, og þad Landed sem þu hefur giefed oss, so sem ad þu hefur svared vorum Forfedrum, eitt Land sem Miolk og Hunꝏang jnneflytur.

16. DROTTinn Gud þinn bydur þier j Dag, ad þu skuler giora epter ollum þessum Bodordum og Riettindum, so ad þu vardveiter þau, og giorer þar epter af ollu Hiarta, og af allre þinne giorvallre Sꝏlu.

17. Þu hefur talad j Dag fyrer DRottne, ad hann skule vera þinn Gud, ad þu vilier ganga j ollum hans Vegum, og hallda hans Logmꝏl, Bodord og Riettinde, og hlyda hans Raust.

18. Og DRottinn hefur tilsagt þier j Dag, ad þu skuler vera hans eiged Folk, so sem þad hann hefur sagt þier, ad þu skuler hallda oll hans Bodord.

19. Og hann skuli upphefia þig, og ad þu skuler hroosast, prijsast, og heidrast yfer ollu Folke, sem hann hefur giort, ad þu siert eitt Heilagt Folk DRottni Gude þijnum, so sem þad hann hefur sagt.

# XXVII. Capitule.

(I) Ad Steina ætte ad h:fia upp hinnmeigin Jordanar j Canaans Lande; (II) Einn Formælingar Hættur.

I. Moses, asamt med Olldungunum af Jsrael, baud Folkenu og sagde, Hallded oll þesse Bodord sem eg byd ydur j Dag.

2. Og a þeim tijma nær ed þier ganged yfer um Jordan, j þad Landed sem DRottinn Gud þinn mun giefa þier, Pa skallt þu reisa upp stoora Steina, og bræda þa utann med Kalke,

3. Og skrifa uppa þa oll þessa Logmoals Ord, nær ed þu kiemur þar yfer um, So ad þu innkomer j þad Landed, sem DRottinn Gud þinn mun giefa þier, eitt Land þar Miolk og Hunang flytur j, so sem DRottinn Gud Fedra þinna hefur sagt þier.

4. Nær ed þier ganged nu yfer um Jordan, þa skulud þier reisa upp þa somu Steina a Fiallenu Ebal (so sem eg byd ydur j Dag) og bræda þa med Kalke.

5. Og þu skallt uppbiggia þar DRottni Gude þijnum eitt Alltare af Steinum, þar sem ecke neitt Jarn kemur yfer.

6. Þu skallt biggia þad sama DRottins Guds þijns Alltare af heilum Steinum, og offra DRottni Gude þijnum Brenneoffur þar uppa.

7. Pu skallt og offra Packargiordar Offre, og neyta þar, og giora þig gladann fyrer DRottni Gude þijnum.

8. Og þu skallt skrifa oll Ordinn þessa Logmoals, kloarliga og skijrlega a þa somu Steina.

9. Og Moses og Prestarner, og Levitarner toludu vid allann Jsrael, og sogdu, Hygg ad og heyr þu til Jsrael, Þu ert ordenn j Dag DRottins Guds þijns Folk,

10. Ad þu skuler hlyda DRottins Guds þijns Raust, og giora epter hans Bodordum, og Riettindum, sem eg byd þier j Dag.

II. 11. Og Moses baud Folkenu þann sama Dag, og sagde.

12. Þesser skulu standa uppa Fiallenu Grisim til ad blessa Folked, nær ed þier erud komner yfer um Jordan, Simeon, Levi, Juda, Jsaschar, Joseph, og BenJamin,

13. Og þesser skulu standa upp a Fiallenu Ebal, til ad bølva, Ruben, Gad, Asser, Zebulon, Dan, og Naphthali.

14. Og Levitarner skulu uppbyria, og seigia til hvors Manns af Jsrael, med hoarre Raustu.

15. Bolvadur verde sa sem giorer eitt Skurgod, ellegar eina steypta Lijkneskiu, hvor ad er ein Svijvirding fyrer Drottne, eins hags Manns Handverk, og setur hana j leyne, Og allt Folked skal svara og seigia, Amen.

16. Bolvadur vere sa sem blotar Fodur sijnum edur Modur, Og allt Folked skal seigia, Amen.

17. Bolvadur vere sa sem saman færer Landamerke sijns Naunga, Og allt Folked skal seigia, Amen.

18. Bolvadur vere sa sem giorer hinn Blinda villtann a Veigenum, Og allt Folked skal seigia, Amen.

19. Bolvadur sie sa sem hallar Riette hins Framanda, hins Fodurlausa, og Ekkiunnar, Og allt Folked skal seigia, Amen.

20. Bolvadur verde sa sem liggur j hioa sijns Fodurs Husfreyu, ad hann upplyster so sijns Fodurs Fallde, Og allt Folked seige, Amen.

21. Bolvadur vere sa sem liggur hioa neckurs konar Fienade, Og allt Folked skal seigia, Amen.

22. Bolvadur vere sa sem liggur med Syster sinne, sem ad er Dotter hans Fodurs, edur hans Modur, Og allt Folked skal seigia, Amen.

23. Bolvadur vere sa sem liggur hioa Modur Husfreyu sinnar, Og allt Folked skal seigia, Amen.

24. Bolvadur vere sa sem slær sinn Naunga leynelega, Og allt Folked skal seigia, Amen.

25. Bol-

25. Bølvadur vere sa sem tekur Giafer til þess, ad sloa Saalena hins Saklausa Blodsins, Og allt Folked skal seigia, Amen.

26. * Bølvadur vere sa sem ecke fullkomnar oll Ordenn j þessu Logmaale, so ad hann giøre þar epter, Og allt Folked skal seigia, Amen. * Gal. 3, 10.

# XXVIII. Capitule.

Moses lyser (I) Blessan yfer þeim Hlydnu; En (II) Bolvan yfer þeim Ohlydnu.

I. Og ef ad þu ert DROTTins Guds þijns Raust hlydugur, so ad þu helldur og giorer oll hans Bodord, sem eg byd þier j Dag, þa mun DROTTinn Gud þinn giora þig þad Ædsta yfer øllum Pioðum a Jordunne,

2. Og allar þessar Blessaner munu þa yfer þig koma, og hitta þig, af þvi ad þu hefur verid DROTTins Guds þijns Raust hlydugur.

3. Blessadur muntu vera j Borgenne, Blessadur a Akrenum,

4. Blessadur mun vera Avøxturenn þijns Kvidar, þinnar Jardar Avøxtur, og þijns Fienadar Avøxtur, þinna Nauta Avøxtur, og þinna Sauda Avøxtur,

5. Blessud mun verda þijn (a) Korf, og þijnar afgangs leyfar,

(a) (Korf) þad er, allt þad sem þu vid Hønd hefur nærverande, og þad sem þu leggur til Geymslu.

6. Blessadur muntu vera j þijnum inngange, og blessadur muntu vera j þijnum wtgange.

7. Og DROTTinn hann mun nidur sloa þijna Ovine fyrer þier, sem setia sig upp j moote þier, Um einn Veg skulu þeir draga wt a mote þier, enn um sio Vegana skulu þeir flya fyrer þier,

8. DROTTinn hann mun bioda Blessanenne, ad hun skule vera hioa þier j þijnu Matar Hwse, og j ollu þvi sem þu asetur þier, og hann mun blessa þig j þvi Landenu, sem DROTTinn Gud hefur giefed þier.

9. DROTTinn mun uppreisa þig, sier til eins heilags Folks, so sem þad hann hefur svared þier, af þvi, þu helldur DRottins Guds þijns Bodord, og geingur a hans Vegum.

10. So ad allt Folked a Jordu skal sioa, ad þu ert nefndur epter DRottins Nafne, og þeir skulu ottaslegner vera fyrer þier,

11. Og DROTTinn hann mun giefa þier yfergnæfanlega noogleg Audæfe, bæde af þijnum sialfs Lijfs Avexte, og af Avexte þijns Fienadar, og af Avexte þijns Akurs, a þvi Landenu sem DROttinn Gud þinn soor þijnum Forfedrum ad giefa þier.

12. Og DROTTinn mun upplwka sijnum gooda Fiesiod, Himnenum, til ad giefa þijnu Lande Regn, a sijnum tijma, og blessa øll þijn Handaverk. Og þu skallt loana morgu Folke, Og af øngvum skalltu loan taka.

13. Og DROTTinn mun giora þig ad Hofdenu, og ecke ad Halanum, og þu skallt alltijd yfer vera, og ecke under liggia. Ef ad þu ert DROTTins Guds þijns Bodordum hlydugur, sem eg byd þier j Dag, ad hallda og giora þau.

14. Og ef þu vijkur ecke j fra neinum þessum Ordum, sem eg byd þier j Dag, hvorke til Hægre nie Vinstre Handar, ad þu ganger ecke epter annarlegum Gudum, til ad þiona þeim.

II. 15. Enn ef þu hlyder ecke Raustenne DROttins Guds þijns, ad hallda og giora epter hans Bodordum og Riettindum sem eg byd þier j Dag, þa skulu allar þessar Bølvaner koma yfer þig og hitta þig.

16. Bølvadur skallt þu j Borgenne vera, Bølvadur a Akrenum.

17. Bølvud skal þijn Korf vera, og hvad þier afgangs er.

18. Bølvadur skal þinn Lijfsins Avøxtur vera, þinn Jardar Avøxtur, þinna Nauta Avøxtur, og þinna Sauda Avøxtur.

19. Bølvadur skalltu vera nær þu geingur jnn, Bølvadur nær þu geingur wt.

20. DRottinn mun senda þijn a medal Slis, Oroad, og Ogiæfu, j ollu þvi sem þu tekur þier fyrer Hendur ad giora, þangad til þu verder eydelagdur, og ad þu fyrerfarest snarlega, fyrer þinna Jllgiorda saker, þad þu hefur yfergiefed mig.

21. DROTTinn mun laata Drepsott yfer þig koma, þangad til ad hann foreyder þier j þvi Landenu, sem þu fer til ad eignast.

22. DRottinn mun slaa þig med Boolgu, Koldusott, Hita, Bruna, Purk, og banvænlegu Vedre og Gulusott, og hann mun offsækia þig, þangad til hann fyrerkiemur þier.

23. Þinn Himen, sem upp yfer þijnu Hofde er, skal vera sem Kopar, og Jordenn under þier sem Jaarn.

24. DROTTinn mun giefa þijnu Lande Ryk og Osku, fyrer Regn af Himne, uppa þig, þangad til ad þu verdur eydelagdur.

25. DROTTinn mun slaa þig fyrer þijnum Ovinum, um eirn Veigenn skalltu vt fara j mote þeim, Enn um Sio Veigena skalltu flya fyrer þeim, og þu skallt burt dreifast um oll Rijkenn a Jordu.

26. Þinn Lijkame skal verda ollum Fuglum under Himnenum, og ollum Dyrum a Jordunne, til Fædis, og þar skal eingenn sa vera sem þau j burt rekur.

27. DRottinn mun slaa þig med Egyptskum Kylum, med Bakhlutsins Saarindum, med Vose og Klaada, so þu kunner ecke ad læknast,

28. DROTTinn mun slaa þig med Raadleysu, Blindleika, og Hiartans Sinnuleyse,

29. Og þu skallt faalma um Middeiged, so sem Blindur Madur faalmar j Mirkre, og þu skallt ongva Giæfu hafa a þijnum Vegum. Þu skallt hliota ad lijda Ofrijke og oriett, alla þijna Lijfdaga, og eingenn skal þier hiaalpa.

30. Þu munt trwlofast eirne Kvinnu, og eirn annar mun sofa hiaa henne. Þu munt uppbiggia eitt Hus, enn þu skallt ecke bwa þar inne. Þu munt planta eirn Vijngard, enn þu skallt ecke giora hann almennelegann.

31. Þijnum Uxa skal verda slaatrad fyrer Augum þier, enn þu munt eckert eta þar af. Þinn Asne skal j burt tekenn vera fraa þier med ofrijke, fyrer þinne Asion, og skal ecke giefast þier aptur, þijner Sauder skulu giefast þijnum Ovinum, og eingenn skal þier til Hiaalpar koma.

32. Þijner Syner og Dætur skulu giefast annarlegu Folke, og þijn Augu skulu siaa þar uppa, og daglega yfer þeim dopur verda. Og þar skal eingenn Styrkleike vera j þijnum Hondum.

33. Þijns Lands Avoxt, og allt þitt Erfide skal þad Folk upp eta, sem þu þecker ecke, og þu skallt lijda Raanginde, og verda undertrodenn alla þijna Lijfdaga.

34. Og þu skallt vera Sinnulaus ut af þvi sem þijn Augu hliota ad sia.

35. DROTTinn mun slaa þig med jllum Graptar Saarum a Knien og Fotleggina, so ad þu munt ecke græddur verda fra Ylium, og allt upp á Hvirfil.

36. DROTTinn mun vtdrijfa þig og þinn Konung, sem þu hefur sett yfer þig, j burt til þess Folks sem hvorke þu nie þijner Forfedur hafa þeckt, og þar muntu þiona annarlegum Gudum, Stockum og Steinum,

37. Og þu munt verda ad undran, og ad einu almennelegu Ordtake, og Haadungu a medal alls þess Folksins, sem DROTTinn j burtdrijfur þig til.

38. Miked Kornsæde skallt þu vtfæra a Akurlendinn, enn litlu skalltu jnn aptur safna, þvi Eingespretter skulu upp eta þad,

39. Þu skallt planta Vijngard, og irkia hann, enn þu skallt ecke drecka, eda saman safna Vijnenu þar vt af, þvi Madkar skulu foreyda þvi.

40. Þu skallt hafa Vidsmiorsvidartrie jnnann allra þinna Landamerkia, enn þu skallt þo ecke smyria þig med Vidsmiore, þviad þijn Oleu Trie skulu upprætast.

41. Þu

41. Þu munt gieta Syne og Dætur, enn ecke bihallda þeim, þviad þau skulu Herte kenn og j burt flutt verda,

42. Öll þijn Alldin=Trie og Avoxt Landsins skulu Jllsku=Madkar upp eta.

43. Hinn Utlendske, sem er hia þier, skal ganga upp yfer þig, og ædre vera enn þu, enn þu skalt nidurstijga, og ætijd underliggia.

44. Hann mun loana þier, enn þu munt ecke honum loana, hann mun Hofuded vera enn þu Halenn.

45. Og allar þessar Bolvaner skulu koma yfer þig og offsækia þig, og hitta þig, þangad til ad þu verdur afmoadur, af þvi ad þu hlyder ecke Raustenne DROTTins GUds þijns, ad þu hiellder hans Bodord og Riettinde, sem hann hefur boded þier.

46. Þar fyrer skulu Teikn og Foadæme vera a þier og þijnu Sæde æfinnlegana,

47. Af þvi ad þu þionader ecke DRottni GUde þijnum, med Glede og Unadsemd þijns Hiarta, þa ed þu hafder allskins gnægder,

48. Og þu munt þiona þijnum Ovinum, þeim sem DROTTinn mun tilskicka þier, med Hungre og Þorsta, Fatleyse, og allskins Þorsnun, og hann skal leggia Joarnok a þinn Hoals, þangad til hann afmoaer þig.

49. DROTTinn mun leida eitt Folk yfer þig vor fiarlægd fra Verallddarennar Enda, sem ein Orn flijwge, hvorra Tungumoal þu skilur ecke,

50. Eitt grimmlegt Folk, þad sem ecke skeyter Manngrein hins alldrada, og ecke væger þeim ungu,

51. Og þad skal foreyda Avextenum þijns Kienadar, og þijns Lands Avexte, þangad til þu eydelagdur verdur, og þad mun ecke loata þier neitt epter vera, hvorke af Korne, edur Vijne, edur Vidsmiore, eige helldur af Avexte Nauta edur Sauda, þangad til þad j eydeleggur þig.

52. Og þeir skulu þier Angist giora j ollum þijnum Portdyrum, þangad til ad þeir nidurbriota þijna Hoafa og rambiggda Mwrvegge, sem þu treyster uppa, j ollu þijnu Lande, og ſo þier skal þreyngt verda innann allra þinna Borgarhlida, j ollu þijnu Lande, sem Drottinn GUd þinn hefur giefed þier.

53. Þu munt eta þinn Lijfsins Avoxt, Kioted af þijnum Sonum og Dætrum, sem DROTTinn GUd þinn hefur giefed þier, j þeirre Angist og Anaud, sem þijner Oviner skulu þvinga þig med.

54. So ad sa Madur sem oadur hefur lifad j miklu Sællijfe, og Kræsingum, skal ecke vilia unna sijnum Brodur og sinne Hwsfreyu sem j hans Fadme liggur, og þeim sijnum Syne, sem enn er epter af hans Sonum,

55. Ad hann giefe nockrum af þeim, af sijnu Sona Kiote ad eta, af þvi ad honum hefur ecke neitt epterloated vered af ollu sijnu Gotse, j þeirre Angist og Anaud sem þinn Ovin skal þreyngia þier med, innann allra þinna Stadar=Porta.

56. Su Kvinna a medal ydar sem oadur hefur vered Sællijf, og lifad miog kræselega hia ydur, so hun hefur ecke reynt ad stijga sijnum Fæte a Jord, fyrer Sællijfesins og Vellystingarennar saker, hun skal ecke vilia unna sijnum Bonda, sem a hennar Arme liggur, og sijnum Syne, og sinne Dotter,

57. Þeirrar (a) Barnfilgiunnar, sem wter geingenn af hennar eigenlegum Kvide, og eige helldur þvi Barnenu sem hun fædde, þviad hun mun heimuglega eta þad sama, fyrer allskins Þorsnunar saker, j þeirre Angist og Naud sem þijner Ovinar skulu þvinga þig med, innann þinna Portdyra.

(a) Nysædda Barne.

58. Utann so sie, ad þu halldet og giorer epter ollum þeim Ordum j þessu Logmoale, sem skrifud eru j þessare Bok, so ad þu ottest þad hid Dijrdarsamlega og hid Hrædelega Nafned DROTTins GUds þijns.

59. Þa mun DRottinn furdulega breita vid þig, med Ploagum yfer þig og þitt Sæde, med stoorum og langgiædum Ploagum, med vondum og langsamlegum Krankdæmum.

60. Og hann mun snwa til þijn ollum þeim Egyptskum Siukdome, fyrer hvorium ad þu kvijder, og hann mun þier vidlodande verda,

61. Og þar til oll Krankdæme og allar Plaagur, sem ecke eru skrifud j þessa Logmaals Bok, þa mun DROTTinn laata koma yfer þig, þangad til ad þu foreydest.

62. Og þar skal ecke vera margt Folk epter af ydur, þier sem aadur hafed vered so marger sem Stiornur a Himne, af þvi, ad þu hlyd-der ecke Raustenne DRottins GUds þijns.

63. Og lijka sem þad, ad DRottinn gladde sig aadur yfer ydur, ad giora ydur til gooda, og fiolga ydur, eins lijka mun hann þa og gle-dia sig yfer ydur, ad hann kunne ad fordiarfa og j eydeleggia ydur,

64. Og þier munud wtrekner verda af þvi Landenu, sem nu fer þu til ad eignast. Drot-tinn mun j burtdreifa þier a medal alls Folks, j fra einum Enda Veralldarennar til hins an-nars, og þar muntu þiona annarlegum Gu-dum, sem hvorke þu nie þijner Fedur hafa þeckt, Stockum og Steinum.

65. Par skalltu ecke neitt fast adsetur hafa a medal þess sama Folks. Og þijner Fætur skulu þar ongva hvijld hafa. Þviad Drot-tinn mun giefa þier j þeim sama Stad eitt skialfanda Hiarta, og dopur Augu, og eina vanmegna Saalu,

66. So ad þitt Lijf skal hanga fyrer þier. Þu skallt Ottablandenn vera bæde Nott og Dag, og ecke ohræddur vera um þitt Lijf.

67. A Morgnana muntu seigia, Æ, mætta eg nu lifa til Kvollds. Enn a Kvoll-denn muntu seigia, Æ, mætta eg lifa til Morguns, ut af Hrædslu þijns Hiarta, sem þig mun skielfa, og ut af þvi hinu sama sem þu hlytur ad sioa med þijnum Augum.

68. Og DROTTinn mun a Skipum innflytia þig aptur j Egyptaland, um þann Veigenn sem eg hefe sagt þier af, þu skallt ecke framar meir hann sioa. Og þar skulud þier sellder verda ydrum Ovinum, til þræla og Amboatta, og þar mun ecke nockur sa vera sem ydur vilie kaupa.

## XXIX. Capitule.

*Moses endurnijar Scattmaalann vid Israels Born.*

Þesse eru þau Scattmaals Ord, sem Drot-tinn baud Mose, ad giora vid Israels Born, j Moabita Lande, j aunad sinn, ep-ter þad hann giorde þann hinn sama vid þa j Horeb.

2. Og Moses kallade allann Israels Lyd til samans, og sagde til þeirra,

3. Þier hafed sied allt þad sem DRottinn giorde j Egyptalande fyrer ydar Augum, bæ-de vid Pharao, og alla hans Þienara, og vid allt hans Land, þær hinar miklu Freistin-gar sem þijn Augu hafa sied, ad þar skiedu Stormerke og Undur.

4. Og DROTTinn hann hefur enn nu ecke allt til þessa Dags giefed ydur eitt Skil-nings fullt Hiarta, edur Augunn ad sioa med, edur Eyrunn ad heyra med.

5. Fiorutiju aar hefur hann laated ydur ganga j Eydemorkenne, ydar Klæde þau hafa ecke elldst a ydur, og þijner Skoor hafa ecke slitnad a þijnum Footum.

6. Þier hafed ecke eted Braud, og eige helldur drucked Vijn, nie nockurn aafeingann Drick, so ad þu skyllder vita, ad Eg er DROTTinn ydar GUd.

7. Og þa þier komud j þetta Plats, foor ut a mote oss Sihon, Kongurenn af Hesbon, og Og, Kongurenn af Basan, til ad beriast vid oss,

8. Og vier hofum slieged þa, og innteked þeirra Land, og giefed þad Rubenitum og Gadditum, og þeirre haalfre Kinkvijsl Manas-se til Arftoku.

9. So halldед nu þesse Scattmaalans Ord, og giored þar epter, so þier kunned ad hondla vijslega j ollu sem þier giored.

10. Þier standed j Dag aller saman fyrer DRottni GUde ydar, hiner Ædstu Menn ydar Kinkvijsla, ydrer Olldungar, ydrer Hofudsmenn, hvor eirn Madur j Israel.

11. Ydar

11. Ydar Børn, ydar Hwsfreyur, þijner Framande, sem eru j þijnum Landtiolldum, bæde hann, sa er þinn Vid høggur, og hinn sa er þitt Vatn sæker,

12. So ad þu skuler ganga j Soattmaala DROTTins GUds þijns, og j þeim Eide sem DROTTinn GUd þinn giører vid ydur j Dag.

13. Ad hann meige uppreisa þig j Dag til eins Folks, og hann skule vera þinn GUd, so sem hann hefur tilsagt þier, og so sem hann hefur svared þijnum Forfedrum, Abraham, Jsaac og Jacob.

14. Þviad eg giøre ecke þennann Soattmaala og þennann Eid alleinasta vid ydur,

15. Helldur bæde vid ydur, sem hier erud j Dag, og standed med oss fyrer DRottne Gude vorum; og vid þa sem hier eru ecke j Dag med oss.

16. Þvi þier vited hvornenn vier biuggum j Egyptalande, og foorum midt um þann Heidendomenn, sem þier ferdudust j giegnum,

17. Og saad þeirra Svijvirdingar, og þeirra Afgude, Stocka og Steina, Silfur og Gull sem voru hioa þeim.

18. So ad þar sie ecke, ma vera, nockur sa Karl edur Kvinna, edur Heimilisfolk, edur einhvør su Kinkvijsl a medal ydar, hvørs Hiarta ad hafe j burt snwed sier j Dag fra DROTTNJ Gude vorum til ad ganga j burt, og þiona Gudonum þessa Folks, og kann vera, ad verde * ein su Root a medal ydar, sem ber Gall og Malurt.

* Ebr. 12, 15.

19. Og enn þo ad hann heyre Ordenn þessarar Bølvanar, þa blessar hann sig þo lijka samt j sijnu Hiarta, og seiger, Þad (a) vegnar mier vel, a (b) medan eg geing so sem þad mijnu Hiarta vel þocknast, So þad hiner fordrucknu skulu fara þangad, asamt med þeim sem ad þyrster eru.

(a) (Vegnar vel) þad eru Ord og Þanckar þeirra hirdulausu, Nei, Helvijte er ecke so heitt, þad er gott med ad giøra, Diofullenn er ecke so hrædelegur sem Menn wtmaala hann, hvad hid sama aller sialf-heilager hardlega og dreyssuglega giøra, vænta þo Launa j Himnenum.

(b) (Medan eg geing) þad er, A medan eg so giøre og dryge mijna Afguda Dijrdkan, þa er einungis Lucka, Hvør Gude þienar, honum geingur alldrei vel.

20. Þa vill DRottinn ecke vera þeim miskunsamur, helldur mun su hin mikla Hefnd og Reide DRottinns riuka yfer þeim Manne, so ad allar þessar Bølvaner, sem hier standa skrifadar j þessare Bok, þa skulu leggiast a hann.

21. Og DRottinn mun afmaa hans Nafn under Himnenum, og hann mun j burt skilia hann j fra øllum Ættkvijslum Jsrael, til alls jlls, epter øllum þessa Soattmaalans Bølvanar Ordum, sem skrifud standa j þessare Logmaals Bok.

22. Þa munu so seigia Epterkomendur ydvara Barna, þeir sem upp munu koma epter ydur, og hiner Utlendsku, sem koma ur Fiarlægum Londum, nær ed þeir sioa þær Plaagur, sem ganga yfer þetta Land, og þau Krankdæme, sem DROTTinn slær þa med,

23. Ad hann upp brenner allt þeirra Land med Brennesteine og Sallte, so ad þar verdur ecke saad, og eige helldur kann þar nockud upp ad vaxa, nie neinar Jurter upp ad spretta, helldur eru þeir um koll kastader, lijka sem Sodoma og Gomorra, Adama og Zeboim, hvørium ad DRottinn kollkastade j sinne Reide, og Hefndar-bræde.

24. Þa munu allar Þioder seigia, Hvar fyrer hefur DROTTinn giørt so vid þetta Land? Hvad er þetta fyrer so mikla Hefndar reide?

25. Þa munu Menn seigia, Þar fyrer, ad þeir hafa yfergiefed Soattmaalann DRottins Guds Fedra þeirra, sem hann giørde vid þa, þann tijd hann wtleidde þa af Egyptalande,

26. Og þeir geingu burt, og þionudu annarlegum Gudum og tilbaadu þa, soddann

Gude sem þeir þeckiu ongva Kienslu a, og ecke neitt hofdu veitt þeim.

27. Þar fyrer hefur Reide DROTTins ordeð so brcað vid þetta Land, ad hann hefur lꝛtað allar þær Bolvaner koma yfer þa, sem skrifadar standa j þessare Book,

28. Og DRottinn hefur vtreked þa af þeirra Lande, j mikellre Reide, Grimmd og Bræde, og j burt fleygt þeim j eitt annarlegt Land, so sem ad þad (til) stendur þennann Dag.

29. DROTTins Guds vors Leynder (c) Doomar eru oss og vorum Bornum opinberer Eylijflega, so ad vier skulum giora oll þesse Logmaalsins Ord.

(c) (Leynder Doomar) Hann vill so seigia, Gydingum hefur Gud framar ollu Foolke a Jordunne sinn vilia opinberad, og hvad hann hafde j sinne, þar fyrer skulum vier og þess kostgiæfnare vera.

# XXX. Capitule.

DRottenn miskunar sig yfer þaa sem snua sier til hans.

Nær ed allt þetta kiemur nu yfer þig, annad hvort Blessanenn, eda Bolvanenn, sem eg hefe fyrer þig lagt, og þu jnn-geingur til þijns eigenlegs Hiarta, hvar sem þu ert a medal Heidingianna, þangad sem DRottinn Gud þinn hefur þig j burt drifed,

2. Og þu snyr þier til DRottins Guds þijns aptur, so ad þu hlyder hans Raust, þu og þijn Born, af ollu Hiarta, af allre Saalu, j ollu þvi sem eg byd þier j Dag,

3. Þa mun DRottinn Gud þinn umsnua þinne Herleidingu, og vera þier miskunsamur, og saman safna þier j burt aptur fra ollu þvi Folke, sem DRottinn Gud þinn hefur j sundur dreift þier a medal.

4. Þo ad þu værer enn j burt drifenn allt til Himensins enda, þa mun þo DROttinn Gud þinn samansafna þier, og flytia þig þadann j fra.

5. Og hann mun flytia þig j þad Landed, sem þijner Fedur hafa aatt, ad þu skuler jnntaka þad, og hann mun giora vel j moote þier, og fiolga þig framm yfer Fedur þijna.

6. Og DRottinn Gud þinn mun umskiera þitt Hiarta, og Hiartad þijns Sædis, So ad þu elsker DRottinn Gud þinn, af ollu þijnu Hiarta, og af allre Saalu, so þu meiger lifa.

7. Enn Drottinn Gud þinn mun leggia allar þessar Bolvaner a Ovine þijna, og a þa sem þig hata, og þier offsokn veita.

8. Enn þu munt snuast, og hlyda Raustenne DRottins, so ad þu giorer oll hans Bodord sem eg byd þier j Dag.

9. Og DRottinn Gud þinn mun giefa þier Lucku j ollum þijnum Handa-verkum, a þeim Avextenum þijns Kvidar, af þeim Avextenum þinnar Hiardar, og a þijnum Jardar Avexte, so ad þad skule þier vel vegna. DRottinn mun umvenda sier ad gledia sig yfer þier, þier (a) til goda, lijka sem hann gladde sig yfer þijnum Forfedrum,

(a) (Til Goda) hvïad þiner Ogudligu hafa lijka vel Heidur og Gots, opt meir enn þeir Heilogu, Enn sier og odrum til Fordiorfunar.

10. Af þvi ad þu hlydder Raustenne Drottins Guds þijns, ad hallda hans Bodord og Riettinde, sem skrifud standa j þessare Logmaals Bok, Ef ad þu snyr þier til DRottins Guds þijns, af ollu Hiarta, og af allre Saalu.

11. * Þviad þad Bodord sem eg byd þier j Dag, er ecke huled fyrer þier, edur oflangt j burt, * Rom. 10, 6. 8.

12. Eige helldur upp j Himnenum, So ad þu þurfer ad seigia, Hvor vill uppfara fyrer oss j Himenenn, og sækia oss þad? So ad vier kunnum ad heyra þad, og giora þar epter.

13. Þad er ecke hinumeigenn Hafsins, so ad þu meiger seigia, Hvor mun vilia fara fyrer oss yfer um Hafed, og sækia oss þad, so ad vier meigum heyra þad og giora?

14. Þviad þad sama Orded er miog nærre þier, j þijnum Munne, og j þijnu Hiarta, so ad þu skuler giora þad.

15. Sia þu, Eg hefe j Dag lagt þier fyrer

fyrer Lijfed, og þad hid gooda, Daudann og hid Vonda,

16. J þvi sem eg byd þier j Dag, ad þu skuler elska DRottinn Gud þinn, og ganga j hans Vegum, og vardveita hans Bodord, Logmaal og Riettinde, so ad þu meiger lifa og fiolgast, og þad DRottinn Gud þinn blesse þig j þvi Landenu, sem þu fer nu til ad eignast.

17. Enn ef þu snyr þijnu Hiarta, og hlyder ecke þessu, helldur lætur þu villa þig, so ad þu tilbidur annarlega Gude, og þionar þeim,

18. Þa kunngiore eg ydur j Dag, ad þier munud fyrerfarast, og ecke leinge vera j þvi Landenu, sem þu ferdast nu til, yfer um Jordan, ad eignast þad.

19. Eg tek j Dag Himen og Jord til Vitnis yfer ydur, Eg hefe lagt fyrer ydur Lijfed og Daudann, Blessanena og Bolvanena, so ad þu meiger vtvelia Lijfed, ad þu og þitt Sæde meige lifa.

20. Ad þier elsked DRottinn Gud ydar, og hlyded hans Raust, og hallded ydur vid hann, Þviad þar er þitt Lijf under komed, og þinn langgiædlegur Alldur, so ad þu meiger bwa j þvi Landenu, sem DRottinn hefur svared þijnum Forfedrum, Abraham, Jsaac, og Jacob ad giefa þeim.

## XXXI. Capitule.

Moses kuedur Jsraels Born, med þvi hann var ordinn Alldradur, og setur Josua til ad vera j sinn Stad.

Og Moses gieck j burt, og talade þesse Ord vid allann Jsrael,

2. Og sagde til þeirra, Eg er j Dag Hundrad og Tuttugu aara gamall, eg kann ecke leingur ad ganga vt og jnn. Þar med þa hefur og DRottinn sagt til mijn, Þu skallt ecke ganga yfer um þessa Jordan,

3. DRottinn Gud þinn mun sialfur ganga fyrer þier, hann mun sialfur foreyda fyrer þier þessu Folke, so ad þu inntaker þa, Josua skal ganga hier yfer um fyrer þier, so sem þad DRottinn hefur sagt,

4. Og DRottinn mun so giora vid þa, sem hann giorde vid Sihon og Og, þa Amoritanna Konga, og þeirra Land sem hann foreydde.

5. Nær ed DRottinn giefur þa nu fyrer ydur, Þa skulud þier giora vid þa epter ollum þeim Bodordum, sem eg hefe boded ydur,

6. Vered hrauster og fullhugader, oottest ecke, og vered ecke hrædder fyrer þeim, Þviad DRottinn Gud þinn mun sialfur ferdast med þier, og hann mun ecke j burt taka sijna Hond fra þier, edur yfergiefa þig.

7. Og Moses kallade a Josua, og sagde til hans, fyrer alls Jsraels Augsyn, Vert þu Hughraustur og Okvijdenn, Þvi þu skallt jnn leida þetta Folk j þad Landed sem DRottinn hefur svared þeirra Forfedrum, ad giefa þeim, og þu skallt urskipta þvi a millum þeirra.

8. Og DROTTinn, sem sialfur geingur fyrer ydur, hann mun vera med þier, og hann mun ecke taka sijna Hond j fra þier, edur yfergiefa þig, Ottast ecke, og vert ecke hræddur.

9. Og Moses skrifade þetta Logmaal, og fieck þad Prestonum, sonum Levi, þeir sem baaru Saattmaals Orkena DRottins, og ollum Olldungunum af Jsrael.

10. Og baud þeim, og sagde, Jaa, ad lidnum sio aarum, a þeim tijma sem Frelsunar aared jnn geingur, a Laufskaala Hatijdenne,

11. Nær ed allur Jsrael kiemur til ad audsyna sig fyrer DRottni Gude þijnum, j þeim stad sem hann mun vtvelia, þa skalltu laata vthroopa þetta Logmaal fyrer ollum Jsrael fyrer þeirra Eyrum,

12. Fyrer Folksins Samkundu, bæde Manna og Kvenna, Barna, og þinna Framande, sem ad eru jnnann þinna Port-Dyra, So ad þeir meige heyra, og læra ad oottast DRottinn ydarn Gud, og ad hallda og giora oll Ord þessa Logmaals.

 13. Og

13. Og ad þeirra Born sem þetta ecke vita, meige og so heyra og læra, ad oottast DROttinn GUD ydar, um alla þa Daga sem þier lifed i þvi Landenu, sem þier fared nu til, yfer um Jordan, ad eignast.

14. Og DROTTinn sagde til Mosen, Sioa, þijn Tijd er nœalæg, ad þu skallt andast, kalla a Josua, og ganged jnn j Samkundu-Tialldbwdena, so ad eg giefe honum Bifalning. Moses gieck af Stad med Josua, og þeir geingu jnn j Samkundu-Tialldbwdena.

15. Enn DRottinn birtest j Tialldbwdenne, j Skijstolpanum, og same Skijstolpenn stood j Bwdardyronum.

16. Og DROTTinn sagde til Mosen, Sioa þu, þu munt sofna med Fedrum þijnum, og þetta Folk mun uppkoma, og Hooraner drya med annarlegum Gudum, j þvi Landenu j hvort þeir koma, og yfergiefa mig, og lœta þann Sœttmœala fara sem eg hefe giort vid þa.

17. Og mijn Reide mun þa geyseleg verda yfer þeim, j þann Tijma, og eg mun yfergiefa þa, og byrgia mitt Andlit fyrer þeim, so ad þeir skulu foreydder verda. Og nær ed mikel Ogiæfa og Angist kiemur yfer þa, so munu þeir seigia, Eru ecke allar þessar Meinsemder komnar yfer mig, af þvi ad minn GUD hann er ecke med mier?

18. Og Eg skal byrgia mitt Andlit a sama Tijma, fyrer saker alls þess hins jlla, sem þeir hafa giort, þad þeir hafa snued sier til annarlegra Guda.

19. So skrifed ydur nu þennann Saung-Dict, og kienned hann Israels Bornum, og legged hann j þeirra Munn, so ad sa same Dictur meige vera mier eirn Vitnisburdur a medal Israels Barna,

20. Þviad eg vil jnnleida þa j þad Landed, sem eg hefe svared þeirra Forfedrum, þar ed Miolk og Hunœang flytur j, og nær ed þeir neyta, og giorast fuller og feiter, þa munu þeir snua sier til annarlegra Guda, og þiona þeim, og hæda mig, og yfergiefa minn Sœttmœala.

21. Og nær ed mikel Ogiæfa og Angist kiemur yfer þa, þa skal þesse Dictur þeim svar giefa, til Vitnisburdar, þviad hann skal ecke forgleymast wt af Munne þeirra Sædis. Þviad eg veit þeirra Panka, hvoria ed þeir nu alla reidu hafa, adur enn eg hefe jnnleidt þa j þad Landed, sem eg hefe svared.

22. So skrifade Moses sama Tijma þennann Dict, og kiennde hann Israels Bornum.

23. Og band Josua, Syne Nun, og sagde, Vertu oruggur og okvijdenn, þviad þu skallt jnnleida Israels Born j þetta Land, sem Eg hefe svared þeim, og Eg vil vera med þier.

24. Þa ed Moses hafde nu algiorlega wtskrifad þesse Logmœalsins Ord j eina Bok,

25. Þa baud hann Levitunum, sem bœaru Vitnisburdar Orkena DROTTins, og sagde,

26. Taked þessa Logmœals Bok, og leggid hana j Hlidena j þeirre Sœattmœals Orkenne DROTTINS GUDs ydars, ad hun skule vera þar eirn Vitnisburdur a moote þier,

27. Þviad eg þecke vel þijna Ohlydne og Hardwd. Sioa þu, Þier erud enn nu, medan eg life hiœa ydur j Dag, ohlyduger a moote DROTTni, hvorsu miklu meir þa epter minn Dauda?

28. So samankalled nu fyrer mig alla Olldungana af ydrum Kinkvijslum, og ydar Hofudsmenn, so ad eg meige tala þesse Ord fyrer þeirra Eyrum, og taka Himen og Jord til Vitnis j mote þeim.

29. Þviad eg veit, ad þier munud spilla þeim epter minn Dauda, og j burtvijkia af þeim Veige sem eg hefe boded ydur, so ad þar eptera mun Olucka koma yfer ydur, af þvi ad þier hafed jlla giort fyrer Augum DROTTins, ad þier reited hann til Reide medur ydar Handaverkum.

30. So talade Moses þau Ordinn þessa Saung-Dicts oll saman wt fyrer Eyrum alls Israels Almwga.

# XXXII. Capitule.

## Lof-Saungur Mosis.

Heyred þier til Himnar, Eg vil tala, og Jorðenn hun heyre Moaled mijns Munns.

2. Minn Lærdomur skal driwpa sem Regn, og mitt Moal skal frammfliota sem Dogg. Lijka sem Regnid a Gräsenu, og so sem Droparner a Jurtunum.

3. Þviad eg vil prijsa Nafn DROTtins, giefed vorum GUde (a) alleina Dyrdena.

(a) (Alleina) lootum vorn GUd alleina vera GUd, og hafa alla Vegseind, enn aungvann annann.

4. Hann er eitt (b) Biarg, hans Verk eru ostraffanleg, þviad allt hvad hann giorer þad er allt riett. GUd hann er trwlyndur, og oan allrar Vondsku, hann er riettferdugur og goodur.

(b) (Biarg) Ebreska Tungumoaled kallar Gud Biarg. þad er, Traust, Huggun, Hioalp, Hæle, Athvarf, þar Menn meiga til flya, og oruggleg uppa treysta.

5. Su hin Rangsnuna og hin illgiarna Kinkvijsl fellur fra honum, þeir eru Skammar-Flecker, og eru ecke hans Born.

6. Þackar þu þannenn DROTTni þijnum GUde, þu gallda og heimskufulla Folk? Er hann ecke þinn Fader og þinn DROTTinn? Er hann ecke sa alleinasta sem þig skapade og tilbioo?

7. Minnstu a hina fyrre Tijdena, og allt til þessa, og hygg ad þvi hvad hann giorde þeim Gomlu Fedrum. Spyr þu þinn Fodur ad þvi hinu sama, hann skal kunngiora þier þad, þijner Olldungar skulu seigia þier þad.

8. Þa ed sa Allra-Hærste sundurskipte Folkenu, og adskilde Mannanna Born, Þa sette hann Folksins Landamerke epter tolu Israels Barna.

9. Þviad Hlutskipte DROTTINS er hans Folk, og Jacob er sa Mælevadurenn hans Arftoku.

10. Hann fann hann i Eydemorkenne, ut i einum þurrlendum Eyde-Stad, þar er Kreatur var. Hann flutte hann, og gaf honum Logmoal, hann vardveitte hann lijka sem Sioaalldred sijns Auga.

11. Lijka sem Ornenn utleider sijna Unga, og flygur yfer þeim, hann wtbreidde sijna Vænge, og took þa upp, og bar þa a sijnum Vængium.

12. DROTTinn leidde hann einn samall, og þar voru ongver framande Guder medur honum.

13. Hann liet hann fara hoatt a Jordunne, og fædde hann med Akursins Avexte, og liet hann siuga Hunoang wr Biorgunum, og Vidsmior wr þeim hordu Steinonum.

14. Smiored af Kwfienadenum, og Miolkena af Saudfienu, med þeirre Feitenne af Lombunum. Og þa feitu Hrwtana, og Kiarnhafrana med Nijrnafeitenne og Hveitenu, og drickiade hann med goodu Vijnberia Bloode.

15. Enn þa hann tok ad verda feitur og fullur, giordest hann lausloatur, hann er ordenn feitur, þickur og stirkur, og hefur yfergiefed þann Gud sem skapade hann, hann hefur fyrerlited Hellubiarged sijns Hioalprædis.

16. Og hann hefur reitt hann til Vandlætingar, fyrer þa hinu Framande, med þeim Svijvirdingum hefur hann egnt hann til Reide.

17. Þeir hafa offrad Land-Dioflunum, enn ecke sijnum GUde. Þeim Afgudunum sem (c) þeir þecktu ecke, þeim nyu, sem ecke voru oadur, hvoria ed ydrer Fedur heidrudu ecke.

(c) (Þecktu ei) þad er, þeir hofdu eckert bod nie Guds Ord þar um, helldur utvoldu Guds nya Dijrdkun af eigenn Þanka.

18. Þu yfergafst med Fyrerlitningu þad Hellubiarged sem þig fædde, og gleymder Gude sem þig skapade.

19. Og þa ed DROTTinn sa þad, vard hann reidur vid sijna Syne og Dætur.

20. Og hann sagde, Eg vil byrgia mitt Andlit fyrer þeim, Eg vil sioa hvornenn þeim mune ganga ad sijdurstu, þviad þad er ein mot=

motsnuenn Kinkvijsl, þeir eru vantruud Born.

21. Þeir hafa upp egnt mig med þvi sem ecke er GUd, og med þeirra Afguda-dijrdkan hafa þeir reitt mig til reide. Og * Eg vil þar j mot egna þá (til Vandlætingar) yfer þeim sem ecke eru Folk, medur einu Fraavijsu Folke vil eg egna þá til Reide. * Rom. 10, 19.

22. Þviad Elldurenn er upptendradur j minne Reide, hann skal og brenna allt til hins nedsta Helvijtis, og hann skal foreyda Landenu med sijnum Groda, og upp kveikia Elld j Fiallanna Grundvelle.

23. Eg vil samansafna allre Ogiæfu yfer þa, ollum mijnum Pijlum vil Eg skiota j þa.

24. Þeir skulu vanmegnast af Hungre, og foreydder verda af Kolldu Sótt og braadum Dauda, Eg vil senda Dyra Tennur a medal þeirra, og Hoggorma Eitur.

25. Hid ytra skal Sverded (d) ræna þa, og hid jnnra Skielfing, bæde Yngesmenn og Meyar, og Briostbornenn, asamt med þeim Graahærdu Monnum.

(d) (Ræna) þad er, utvortis munu þar verda Eckiur og Fødurlauser, og þeirra Born sorgfull, enn hvad þar fyrer jnnann verdur mun fyrer Hrædslu, þad er af Hungre, Pestilentium og Upphlaupum, aunnlega takast af Døgum.

26. Eg vil seigia, Hvar eru þeir? Eg vil j burt taka þeirra Minning a medal Mannanna.

27. Ef ad eg fordadest ecke Reidena þeirra Ovina, ad þeirra Oviner meige stæra sig þar wt af, og mættu seigia, Vor Magt er hoa, og Drottinn hefur ecke giort þetta alltsaman.

28. Þviad þad er eitt Folk, þad sem er (e) Raadlaust, og þar er eingenn Skilningur j þeim.

(e) (Raadlaust) þeir akta Guds Ord einkis, enn vita þo betur.

29. O være þeir hyggner, og kynne ad formerkia slijkt, so ad þeir underst æde þad, hvad yfer þa mun hier epter koma.

30. Hvornenn geingur þetta til, þad eirn skal ellta Þusund af þeim, og tveir skulu slaa Tiju Þusunder a flootta? Er þad ecke so, ad þeirra Hellubiarg hefur sellt þa? Og DRottinn hefur yfergiefed þa.

31. Þviad vort Biarg er ecke sem þeirra Biarg, þar um eru vorer Oviner sialfer Domarar.

32. Þviad þeirra Vijntre eru af Sodoma Vijnvide, og af þeim Akurlondum Gomorra, þeirra Vijnber eru Gall, þeir hafa beisk Ber.

33. Þeirra Vijn er Drekanna Eitur, og grimmrar Nodru Gall.

34. Er þetta ecke geymt hiaa mier, og (f) jnnsiglad j mijnum liggianda Fiesiod?

f) (Jnsiglad) þad er, þeir trua ecke fyrr enn þeir taka a, þviad þad er fyrer þeirra Augum huled.

35. * Hefndenn er mijn, Eg vil endurgialld a, A sijnum Tijma skal þeirra Footur skridna, Þviad Tijmenn þeirra Ogiæfu er naalægur, og þeirra hid Okomna kiemur med Flyte. * Rom. 12, 19. Ebr. 10, 30.

36. Þviad DRottinn mun dæma sitt Folk, og hann mun miskuna sig yfer sijnum Þienorum. Þvi hann mun saalijta þad, ad þeirra Kraptur er j burtu, og ad bæde þad (g) jnneluckta og yfergiefna er j burtu.

(g) (Jnneluckta og yfergiefna) þad er sa Hlutur sem geymdur hefur vered og lijtels aktadur, þviad a Fridarins Tijma er þad margt lijtels aktad sem Menn mundu giarnann nyta a Horunngar Tijmanum, ef þess Kostur være, so er þad bædi Dyrmætt og lijtels verdt.

37. Og Menn munu seigia, Hvar eru þeirra Guder? Þeirra Biarg sem þeir forlietu sig uppa.

38. Af hvorra Foornum þeir aatu þad feita, og drucku þad Vijned af þeirra Drickiar Offre, Laated þa uppstanda og hiaalpa ydur, og veita ydur hlijfd.

39. Siaaed þier nu, ad Eg er hann Alleina, og ad þar er eingenn Gud utann Eg, Eg kann ad deyda og lijfga, Eg kann ad særa og ad græda, Og saa er eingenn sem kunne ad frelsa wt af minne Hende.

40. Þviad Eg vil upphefia mijna Hond j

Himenenn, Og vil seigia, Eg life eylijflega.

41. Nær eg hvesse mitt Sverd sem adra Elldingu, og mijn Hond tekur til ad refsa, Pa vil eg hefna mijn aptur a Ovinum mijnum, og endurgiallda þeim sem mig hata.

42. Mijn Skeyte skal eg druckenn giora af (h) Bloode, og mitt Sverd skal Kiot svelgia, Jaa, Blod þeirra sem slegner eru og herteknar, og yfer Ovinarens beru Høfde.

(h) (Blood) þad eru þriggia handa Plaagur Sverdsins, Su firsta er, ad marger af þeim munu j hel kaast; Aunnur, ad þeir skulu herleidast; Þridia, ad þeirra Høfud skal verda bert, þad er þeirra Kongs Rijke og Kiennemannskapur skal fra þeim takast, Hvør ed merkest fyrer Høfud-Haarenn.

43. Gledied ydur aller þier sem erud hans Folk, Pviad hann mun hefna Blodsins sinna Pienara, Og hann mun hefna sijn a sijnum Ovinum, og miskunsamlegur vera yfer Landenu sijns Folks.

44. Og Moses kom, og talade øll Ordenn þessa Loffsøngs fyrer Folksins Eyrum, hann og Josua, Son Nun.

45. Pa Moses hafde nu wttalad allt þetta til alls Israels Lyds,

46. Pa sagde hann til þeirra, Legged uppa Hiartad øll Ord, sem eg vitna j Dag fyrer ydur, so ad þier biodet ydar Bornum, ad þau hallde og giore allt hvad hier seigest j þessu Logmaale.

47. Pvi þad er ecke eitt Onytiu Ord til ydar, helldur er þad ydart Lijf, og þad sama Ord mun leingia ydar Lijfdaga, j þvi Landenu sem þier fared nu til yfer um Jordan, til ad eignast.

48. Pann sama Dag talade DRottinn vid Mosen, og sagde,

49. Gack þu upp a þad Fialled Abarim, uppa þad Fialled Nebo, sem liggur j Moabita Lande, þvert yfer fra Jericho, og skoda þad Landed Canaan, hvort ad Eg vil giefa Israels Bornum til eignar.

50. Og dey þu þar a Fiallenu, þa þu ert þangad uppkomenn, og safna þier til þijns Folks, Lijka sem þinn Broder Aaron hann andadest a Fiallenu Hor, og safnade sier til sijns Folks,

51. Par fyrer, ad þier misgiordud a moote mier a medal Israels Barna, hia Mootmælis Vatnenu j Kades, j þeirre Eydemørkenne Zin, so þier helgudud mig ecke a medal Israelis Barna,

52. Pvi þu skallt sia Landed þvert yfer fra þier, sem Eg vil giefa Israels Bornum, Enn þu skallt ecke koma jnn þangad.

# XXXIII. Capitule.

Moses blessar Israels Born rett under sitt Andlaat.

Pesse er su Blessan, med hvorre ad Moses Guds Madur blessade Israels Born aadur enn hann deyde,

2. Og sagde, DRottenn er komenn af Sinai, og hann er þeim af Seir upprunnenn, Hann birtest af Fiallenu Paran, og kom med margar Pusunder Heilagra. Til hans hægre Handar er eitt gloande Logmaal til þeirra,

3. Hvørsu elskade hann Folked, Aller hans Heilager eru j þinne Hende, Peir munu setia sig hia þijnum Footum, og munu læra af þijnum Ordum.

4. Moses baud oss Logmaaled, Samkundu Arf Jacobs,

5. Og hann stiornade einu Kongs (a) Embætte, og hiellt þeim ædstu Monnum Folksins til samans, og þeim Rinkvijslum Israels.

(a) (Embætte) Hann var ecke Kongur, hafde og eckert þar af, og hiellt þo Folkenu til samans, svo sem þad hefde eitt Høfud, Lijka sem einn Kongur, so þad tvijstradest ecke, nie geinge afvega.

6. Ruben skal lifa og ecke deya, og hans Alþijda skal faa vera.

7. Pesse er su blessanenn Juda, og hann sagde, DRottinn heyre Raustena Juda, giordu hann ad Stiornara sijns Folks, laattu hans Magt mikla verda, Og laat hann faa hiaalp a mote sijnum Ovinum.

8. Og hann sagde til Levi, Pinn Riettur og þitt Lios skal vera hia þijnum heilaga L[illegible] Manne,

Manne, sem þu freistader j Massa, þar ed þier þrættudud hioa Motmæles vatnenu,

9. Hvor sem seiger til sijns Fodurs, og til sinnar Modur, Eg sie hann ecke, og til sijns Brodurs, eg þecke hann ecke, og til sijns Sonar, eg veit ecke, þeir hallda þijn Ord, og vardveita þinn Scattmoala,

10. Peir munu læra Jacob þijn Riettinde, og Israel þitt Løgmoal, þeir skulu bera þad Reykelse fyrer þijn Vit, og heillt Offur uppa þitt Alltare,

11. DRottinn, Blessa þu hans Megn, loat þier þocknast hans Handaverk, Sundur sloa þu þeirra Hrigg sem setia sig upp a moote honum, og a þeim sem hata hann, so ad þeir reise sig ecke upp.

12. Og til BenJamin sagde hann, Sa hinn (b) Elskulege DRottins skal bwa tryggelega, Og hann skal alltijd hlijfa hønum, og hann skal bwa a millum hans Herda.

(b) (Elskulege) þad er, Mustered og Jerusalem og Konga Setred var BenJamins Lands Eign.

13. Og til Josephs sagde hann, Hans Land liggur j Blessan DRottins, Par eru edla Avexter af Himne, af Døggenne, og af þeim Diwpunum, sem þar liggia under nidre.

14. Par eru edla Avexter af Solunne, og edla fullþroadur Avoxtur af Tunglenu,

15. Og af þeim Hoafiollunum mot Austrenu, og af þeim smoahædunum æfinlega,

16. Og edla Avoxtur af Jordunne, og hvad sem j henne er. Hans Noad sem bioo j Runnanum kome yfer Josephs Høfud, og yfer Hvirfel þess Nasirs, a medal hans Brædra.

17. Hans Fegurdar Prijde er lijka sem eins Frumgietins Uxa, og hans Horn eru sem eins Einhyrnings Horn, medur þeim somu skal hann steyta Folked til samans, allt til Landsins Enda. Þad eru PusunderEphraim, og þær Pusunder Manasse.

18. Og til Zebulon sagde hann, Gled þig þu Zebulon j þijnum wtgange. Og þu Isaschar gled þig j þijnum Landtiolldum.

19. Peir skulu kalla Folked uppa Fialled, og offra þar Riettlætesins Offre. Pvi þeir munu siuga yfersliotanlega gnægd Sioafarhassins, og þa nidursocktu Fiesiodunа j Sandenum.

20. Og til Gad sagde hann, Blessadur verde sa er wtbreider Gad, Hann liggur sem eitt Leon, og ræner Armleggenn og Hvirfelenn.

21. Og hann sa, ad hønum var giefed eitt Høfud, eirn Lærefader sem ad hulenn er, sa ed kom med Folksins høfdingium, og frammkvæmer DRottins Riettvijse, og hans Riettinde j Israel.

22. Og til Dan sagde hann, Dan er eitt Ungt Leon, hann mun fliota af Basan.

23. Og til Nephthali sagde hann, Nephthali skal hafa gnægd hvad hann gyrner, og mun fullur verda af Blessan DROTTins, A moot Vestrenu og Sudrenu skal hans Eign vera.

24. Og til Asser sagde hann, Asser sie blessadur med Sonum, Hann sie þeckur sijnum Brædrum, og dyfe sijnum Fæte j Vidsmior,

25. Jaarn og Kopar skal vera a hans Sko, Pijn Elle skal vera lijka sem þinn Æsku Alldur.

26. Par er eingenn Gud, so sem Israels Gud, Hvor ed situr a Himnum uppe, hann vere þijn Hialp, Hans Dijrd er j Skijonum.

27. Þar ed er Guds Bwstadur fra Upphafenu, og a medal Armleggianna eylijflegana. Og hann mun utdrifa þijna Ovine fyrer þier, og seigia, Vered eydelagder.

28. Israel hann skal alleina ugglaus bwa, Brunnur Jacobs skal vera a þvi Landenu, sem Korn og Vijn er, þar til med skal hans Himen driupa af Døggu.

29. Sæll ertu Israel, Hvor er þinn Lijke? O Folk, ad þu verder hølped fyrer DRottinn, sem er þinn hioalpar Skiølldur, og þitt Sigurvinningar Sverd, Pijner Ovíner skulu lægiast (fyrer þier) enn þu skallt frambruna a þeirra Hædum.

## XXXIV. Capitule.

Moses Andast.

Og

Og Moses gieck j burt af Vollunum þeirra Moabitis, uppa Fialled Nebo, uppa Gnypu Fiallsins Pisga, jafngiegnt Jericho. Og DROTTINN synde hönum giorvallt Landed Gilead, allt til Dan,

2. Og allt Nephthali, og Ephraim, og Manasses Land, og giorvallt Landed Juda, vt til hins ytsta Hafsins.

3. Og j moot Sudrenu, þad slietta Vijdlende giegnt Jericho þeim Palmvidar stadnum, allt til Zoar.

4. Og DROTTinn sagde til hans, Þetta er þad Landed sem Eg hefe svared Abraham, Isaac og Jacob, og sagde, Eg vil giefa þijnu Sæde þad, Þu hefur nu sied þad med þijnum Augum, Enn þu skallt ecke ganga hier yferum.

5. Og Moses sa Þienare DROTtins andadest þar j þeim sama stad, j Moabita Lande epter Orde DROTTins.

6. Og hann jardade hann j einum Dal j Moabita Lande, þvert yfer fra þvi Hwsenu Peor, og eingenn veit enn nu af hans Grøf allt til þessa Dags,

7. Og Moses var Hundrad og Tuttugu Ara gamall þa hann andadest, Eige glaptest hönum Syn, og ei þverrade hönum hans kraptur.

8. Og Israels Born grietu Mosen, j þriatiju Daga, a þeim sliettu Vollonum j Moabita Lande, þar med þa fullkomnudust Harms og klogunar Dagar epter Mosen.

9. Og Josua, Son Nun, uppfylltest af Vijsdoms Anda, Þviad Moses hafde lagt sijnar Hendur yfer hann, Og Israels Born hlyddu hönum, og giordu so sem DRottinn hafde boded Mose.

10. Og þar reis eingenn Prophete sijdan upp j Israel sem Moses, hvorn ed DRottinn so þeckte fra Auglite til Auglitis,

11. Fyrer allra handa Teakn og Furduverk, sem þad DRottinn sende hann til ad giora j Egyptalande, a Pharao, og øllum hans Þienorum, og a øllu hans Lande.

12. Og til allrar þeirrar Magtar-Handar, og Mikilla (a) Siona, sem Moses giorde fyrer Augsyn alls Israels.

(a) Skielfinga.

Ending hinnar Fimtu Moses Bokar.

# Bokenn Josua.

## I. Capitule.

Josua fær Styrk og Stadfesting i sinne Kollun.

Og þad skiede, þa Moses þion DROttins var andadur, þa sagde DRottinn til Josua, Sonar Nun, Moses Þienara,

2. Moses minn Þienare er andadur, þar fyrer tak þig upp, og far yfer þessa Jordan, þu og allt þetta Folk, j þad Land sem Eg gaf þeim Israels Bornum.

3. Eg hefe giefed ydur alla þa Stade sem ydar Fætur munu ganga uppa, so sem Eg sagde til Mosen.

4. Fra Eydemorkenne, og þessu Libano, allt ad þvi mikla Vatne Phrath, allt Hethithers Land, jnn til þess stoora Vesturhafs, skal vera ydars Lands um-merke.

5. Eingenn skal standa j mote þier, alla þijna Lijfdaga. Eg vil vera med þier, lijka so sem Eg var med Mose, og * eige vil Eg yfergiefa þig, og ecke helldur vijkia fra þier.

* Ebr. 13, 5.

6. Vertu Hughraustur og Okvijdenn, þvi þu skallt skipta Landenu med þessu Folke, hvort Eg soor þeirra Forfedrum ad giefa þeim.

7. Vert ad eins øruggur og miøg hraustur, so ad þu hallder og giorer alla Hlute epter Logmaalenu, þvi sem minn Þienare Moses baud þier. Vijk þu þar eige fra (a), hvorke til Hægre nie Vinstre Handar, so þu kunner ad

 hønd-

høndla forsialega j ollum þeim hlutum sem þu skallt giora.

(a) Hvar sem hagar sier epter Guds Orde, sa giorer forsiallega og lucklega, enn hvar sier hagar epter sijnu eigenn Høfde, hann høndlar onytsamlega og til forgleſins. Deut. 12, 32.

8. Og lꝏt þessa Logmꝏls Bok ecke koma fra þijnum Munne, helldur þeinktu um hana Dag og Nott, so þu meiger hallda og giora alla Hlute þar epter, so sem skrifad stendur j henne. So skal þad luckast þier vel, j ollu þvi þu giorer, og þu munt vijslega kunna þier ad hegda.

9. Sioa þu, Eg hefe boded þier, ad þu siert hughraustur og stirkur, ottast ecke, og vert ecke hræddur, þviad DROTTinn GUd er med þier, j ollum þeim Hlutum sem þu skallt giora.

10. Þa baud Josua Folksins Hofuds Monnum, og sagde.

11. Fared j giegnum Herbuderdernar, og skiped Folkenu, og seiged, tvtveged ydur Neste, þvi þier skulud ferdast yfer um þessa Jordan epter þria Daga, so ad þier þar jnn komed, og eignest þad Landed sem DROTTinn ydar GUd mun giefa ydur.

12. Og Josua sagde til þeirra Rubenita, Gaddita, og til halfrar Manasse Kinkvijslar,

13. Minnest a þau Ord sem Moses Pienare DROTTins talade til ydar og sagde. DROTTinn ydar GUd hefur veitt ydur Hvijld, og giefed ydur þetta Land.

14. Lꝏted ydar Kvinnur, Børn, og Bwsmala, blijfa epter j Landenu, þvi sem Moses hefur giefed ydur þessumeigenn Jordanar, enn þier skulud ganga Vopnader fyrer ydrum Brædrum, aller þier sem Strijdsfærer erud og hioalpa þeim,

15. Þar til ad DROTTinn giefur og ydar Brædrum Hvijld, lijka so sem ydur, ad þeir eignest Landed, þad DROTTinn ydar GUd mun giefa þeim, þa skulud þier snua aptur j ydart Land, sem Moses Guds Pienare gaf ydur til eignar. þessumeigenn Jordanar, moote Austre.

16. Og þeir svorudu Josua, og sogdu, Vier vilium giora allt þad sem þu hefur boded oss, so og vilium vier fara hvort sem þu sender oss.

17. Og so sem vier vorum Mose hlydnger, so vilium vier og hlyda þier, vere ad eins DROTTinn GUd þinn med þier, lijka sem hann var med Mose.

18. Hvor sem er þijnum Munne ohlydugur, og ecke hlyder þijnum Ordum j ollu þvi þu bydur oss, sa skal deya, vert þu ad eins Hughraustur og Okvijdenn.

## II. Capitule.

Niosnarar leynast hia Rahab.

Enn Josua, Son Nun, hafde sendt a laun Tvo Niosnar Menn af Sittim, og sagt þeim, Fared og skoded Landed, og Jericho. Þeir fooru af Stad, og komu jnn j Hwus eirnrar Skiækiu sem hiet Rahab, * og toku sier þar Herberge. * Ebr. 11, 31.

2. Þa var þetta sagt Kongenum af Jericho, Sioa, a þessare Nottu eru komner hingad Menn af Israels Børnum, ad niosna um Landed.

3. Þa sende Kongurinn af Jericho bod til Rahab, og liet seigia henne, Sel framm þa Menn sem komner eru til þijn j þitt Hwus, þvi þeir eru komner hingad ad niosna um allt Landed.

4. Enn Kvinnann falde þa Tvo Menn, og sagde so, joa, hier komu Menn jnn til mijn, enn eg vissa eige hvadan þeir voru.

5. Og sem mirkt var orded, og moote þvi ad Borgarhlidenn skylldu aptur lꝏtast, þa geingu þeir vt, so eg veit ecke hvort þeir geingu, fared sem skiotast epter þeim, þa nꝏed þier þeim.

6. Enn hun liet þa stijga upp a Þaked, og falde þa under Hørhꝏlmenum, sem hun hafde breidt a Þaked,

7. Enn Mennerner sooktu epter þeim a Veigenn til Jordanar, til Feriustadarins, enn sem þeir voru vtfarner sem þeim epterfor veittu, þa voru Borgarhlidenn aptur lꝏtenn.

8. Og ꝏdur enn þad Mennerner logdu sig til

til Svefns, foor hun upp til þeirra a Þaked, og sagde til þeirra,

9. Eg veit ad DROTTinn hefur giefed ydur þetta Land, þviad ein Hrædsla er fallenn yfer oss fyrer ydur, og aller Landsins Innbyggiarar bera Kvijda fyrer ydar Tilkomu,

10. Søkum þess, ad vier hofum heyrt, hvorsu ad DROTTinn þurkade Vatned fyrer ydur j þvi Rauda Hafe, þa þier forud af Egyptalande, og so lijka hvad þier giordud Tveimur Amorita Kongum, Sihon, og Og, Hinumeigenn Jordanar, hvornenn þier eydelogdud þa.

11. Og upp fra þvi vier heyrdum þetta, þa er Ædra komenn j vor Brioſt, og þar er eingenn hugur framar j nockrum Manne vegna ydar tilkomu, þviad DROTTinn ydar GUd er Einn GUd, bæde a Himnum uppe, og a Jordu nidre.

12. So sveried mier nu vid DROTTinn, ad vegna þess eg framde Miskun vid yckur, ad þier veited og so Miskun mijnu Fodurs Hwse, og giefed mier eitt vijst Merke,

13. Ad þid vilied lwta minn Fodur, mijna Modur, mijna Brædur, og mijnar Systur lifa, og allt þad þeim tilkiemur, og frelsed vorar Sœaler fra Daudanum.

14. Mennerner sogdu til hennar, Ef vier giorum ecke Miskun og Tryggd vid þig, þa DROTTinn giefur oss þetta Land, þa skulu vorar Sœaler deya fyrer ydur, so framt sem þu lætur ecke þetta vort Samtal j Lioſe.

15. Þa liet hun þa sijga j Feste ofann fyrer Mwrenn, wt um eitt Vindauga, þviad hennar Hwss stood nær Borgarveggnum, so ad hun bioo og so uppa Mwrnum.

16. Og hun sagde til þeirra, Fared uppa Fialled, og feled yckur þar j þria Daga, so þeir mœte yckur ecke sem yckar fooru ad leita, þar til þeir koma aptur, sem yckur veita Epterforena, sijdann meiged þid fara yckarn Veg.

17. Mennerner sogdu til hennar, Vid vilium vera frioalser af þessum Eide, sem þu hefur tekid af ockur,

18. Ef þu heinger ecke þessa rauda Feste wt um þetta Vindauga, j hvorre þu lietst ockur nidursijga, þa vier komum j Landed, og so, hafer þu ecke samankallad j þitt Hwss, þinn Fodur, þijna Modur, þijna Brædur, og þitt allt Fodurs Hwss.

19. Og hvor sem geingur wt af þijnum Hwsdyrum, hans Blod skal vera yfer hans Hofde, enn vid vilium vera saklauser. Enn leggest Hond a nockurn af ollum þeim sem eru j þijnu Hwse, þa skal þeirra Blod koma yfer vort Hofud.

20. Enn verde so, ad þu seiger epter ockur þesse ockar Erinde, þa vilium vier vera frioalser af þessum Eide, sem þu hefur teked af ockur,

21. Hun svarade, Sie so sem þid seiged, og liet þa fara, og þeir geingu af stad, og hun hnytte þeirre raudu Festenne j Vindaugad.

22. Og þeir geingu af stad, og komu a Fialled, og tøfdu þar j Þria Daga, þar til þeir komu aptur sem þeim Epterforena veitt hofdu, þviad þeir hofdu leitad epter þeim a ollum Vegum, og fundu þo ecke.

23. Sijdann sneru þesser Tveir Menn aptur, og geingu af Fiallenu, og foru yfer um, og komu til Josua, Sonar Nun, og sogdu honum fra ollum Hlutum so sem þeir hofdu varer orded.

24. Og sogdu til Josua, DROTTinn hefur giefed allt Landed j vorar Hendur, og Landsins aller Innbyggiarar eru felmsfuller fyrer oss.

## III. Capitule.

Israels Born ganga þurrum fotum yfer ana Jordan.

Og Josua stod upp miog snema Morguns, og þeir ferduduſt fra Sittim, og komu til Jordanar, hann og oll Israelis Born, og voru þar um Nottena, adur þeir fære yfer um.

2. Enn Þremur Dogum þar epter, geingu Hofudsmennerner um Herbwdernar,

3. Og budu Folkenu og sogdu, Þegar þier siaed DROTtins GUds ydars Sœattmwals

Ørk, og Prestana af Levitonum berande hana, þa fared þot af ydar Platsum, og filged henne epter.

4. Þo so, ad þar sie nær Tveggia Þusund aalna Room j millum ydar og hennar, þier skulud ecke ganga miøg nærre henne, so ad þier meiged vita hvørn Veg þier skulud fara, þvi þier hafed ecke fyrr geinged þennann Veg.

5. Og Josua sagde til Folksins, Helged ydur, þviad DROTTinn mun giora Daadsemdarverk a Morgun a medal ydar.

6. Og hann sagde till Prestanna, Bered Saattmaalans Ørkina, og gangid undan Folkenu. Og þa baaru þeir Saattmaalans Ørk og geingu framm undan Folkinu,

7. Og DROTTinn sagde til Josua, A þessum Deige vil eg taka til ad mikla þig fyrer øllum Jsrael, svo ad þeir skulu vita, ad so sem Eg var med Mose, so lijka vil Eg og vera med þier.

8. Og biod þu Prestonum sem bera Saattmaalans Ørkena, og seig, Þa þier komed first j Jordanar Vatn, þa standed kirrer.

9. Og Josua sagde til Jsraels Barna, Komed hingad, og heyred Drottins ydars GUds Ord.

10. Og hann sagde, Þar af skulud þier vita, ad sa Lifande GUd er medal ydar, og ad hann skal þtdrijfa fyrer ydur þa Cananita, Hethita, Hevita, Pheresita, Gergosita, Amorita, og Jebusita.

11. Sioa, Saattmaals Ørk hans sem Stiornar yfer alla Verolld, hun skal fara undan ydur j Jordan,

12. So taked nu Tolf Menn af Jsraels Ættkvijslum, einn Mann af sierhvørium Kinþætte.

13. Og þa Prestarner, sem bera Saattmaalans Ørk Drottens, sem drottnar yfer allre Verolld, laata sijnar Fætur j Jordans Vatn, þa skal Jordans Vatn skiliast ad, þad Vatn sem rennur ofann ad, skal standa j einum Hoop.

14. Enn sem Folked foor nu af sijnum Tialldbþodum, ad þeir skylldu ganga yferum Jordan, og Prestarner baaru Saattmaalans Ørkena framme fyrer Folkenu,

15. Og komu ad Jordan, so ad þeir draapu sijnum Footum fremst j Vatnid (enn (a) Jordan fyllde allann sinn Farveg uppa Backa, um allann Kornskurdar Tijmann).

(a) (Jordan) Þesse Historia merker þad, ad Christus, hvørn Postularner j Evangelio bera framm fyrer oss, hann sie sa sem leide oss j Himirijke, giegnum þurra Jordan, hvør ed þo var þa allra fyllst. Þad er, Løgmaaled, hvørt ed med Verkunum adþreinger og frammdrijfur oss, þad lætur af fyrer Evangelium, svo ad vorar Samvitskur eru fyrer Løgmaalenu frijar, gladar, ohræddar, og epterfilgia Christo alleina j Trunne, etc.

16. Þa stod Vatnid kirrt, þad sem ofann ad kom, og þrþotnade upp j eina Hæd, miøg langt fra Folkenu þess Stadar sem liggur vid Sijduna a Zarthan, enn Vatned sem fyrer nedan framm rann til Hafsins, allt j salltann Sio, þad þverrade og burt flaut. So gieck Folkid yfer um, gagnvart Jericho.

17. Og Prestarner, sem baaru DROTTins Saattmaals Ørk, stodu kirrer midt j Jordan, a þurru, og allt Jsraels Folk gieck þurrum Footum yfer um, þangad til ad allt Folked var yfer um Jordan komed.

## IV. Capitule.

Tolf Steinar eru upreister.

Og DROTTinn sagde til Josua,

2. Taked ydur Tolf Menn, einn af hvørre Ættkvijsl,

3. Og bioded þeim, og seiged, Taked upp Tolf Steina af Jordan, þar þeim Stad sem Fætur Prestanna standa a (a), og bered þa yfer um med ydur, og bered þa j þann Stad sem þier skulud vera þessa Nott.

(a) (Standa) þad er, Prestarner, sem Aurkena baaru, stodu so sem þeim var nidur skipad, og giørdu ecke annad.

4. Þa kallade Josua Tolf Menn, sem til voru skickader af Jsraels Børnum, einn af hvørre Ættkvijsl,

5. Og

5. Og sagde til þeirra, Ganged yfer um fyrer DROTTins ydars GUds Ørk, midt j Jordan, og take einn Stein hver ydar a sijnar Axler, epter Ettkvijsla Tolu Israelis Barna,

6. So þeir sieu til Teikns a millum ydar, þa ydar Børn hier epter spyria sijna Fedur hier ad, og seigia, Hvad þyda þesser Steinar hier?

7. Ad þier þa seiged þeim, Hvorsu Vatned Jordanar skildest ad fyrer DROTTins Sattmaals Ørk, þa þeir geingu yfer um Jordan, ad þesser Steinar sieu Israels Børnum til æfinnlegrar Minningar.

8. Þa giordu Israels Børn sem Josua baud þeim, og baaru Tolf Steina midt wr Jordan, so sem DROTTinn sagde til Josua, epter Ettkvijsla Tolu Israelis Barna, og baaru þa med sier yfer um, allt til þess Stadar sem þeir laau um Nottena, og lietu þa þar vera.

9. Og Josua uppreiste Tolf Steina midt j Jordan, þar sem Prestanna Fætur stoodu, sem baaru Sattmaalans Ørkena, og þeir eru þar enn nu a þessum Deige.

10. Þviad Prestarner, þeir sem baaru Ørkena, stoodu midt j Jordan, þar til ad þad var allt fullkomnad sem DROTTinn hafde boded Josua ad seigia til Folksins, so sem Moses hafde aadur bijfalad Josua, og Folked hradade sier, og gieck yfer um.

11. Enn þegar Folked var nu alltsaman yferum komed, þa foor og Ørk DROTTins yfer um, og Prestarner undan Folkenu,

12. Enn þeir Rubenitar og Gadditar, og helfteun af Manasse Kine, geingu vopnader fyrer Israels Børnum, so sem Moses hafde sagt til þeirra.

13. Nær Fiorutijge Þusunder, buner til Bardaga, og þeir geingu fyrer DROttni til ad strijda, a Vollum Jericho.

14. Og a þeim Deige giorde DROTTinn Josua mikelegann fyrer øllum Israel, og þeir oottudust hann so sem þeir oottudust Mosen alla hans Daga.

15. Og DROTTinn sagde til Josua,

16. Biod þu Prestunum, þeim sem bera Vitnisburdar ørkena, ad þeir stijge upp wr Jordan.

17. So baud Josua Prestunum, og sagde, Gauged upp ur Jordan.

18. Og þa Prestarner, sem baaru DROttins Sattmaals Ørk, komu upp wr Jordan, og stigu a þurrt Land sijnum Footum, þa fiell Vatn Jordanar aptur j sinn Farveg, og rann so sem aadur upp ad øllum sijnum Bockum.

19. Og þetta skiede þann Tijunda Dag j þeim Firsta Maanade, þa Folked stie upp wr Jordan, og sette sijnar Herbuder j Gilgal, Austan til vid Stadenn Jericho.

20. Og Josua sette þa Tolf Steina upp j Gilgal, sem þeir toku wr Jordan.

21. Og sagde til Israels Barna, Þa ydar Børn spyria sijna Fedur sijdar meir, og seigia, Hvad merkia þesser Steinar?

22. Þa skulud þier kunngiora þeim þad, og seigia, Israel gieck þurrum Footum yfer um Jordan,

23. A þeim Tijma þa DROttinn ydar GUd liet Vatned Jordanar þurkast fyrer ydur, þar til þier komust yfer um, so sem DROttinn ydar Gud giorde j Rauda Hafe, so hann þurkade þad fyrer oss, so leinge sem vier geingum þar yfer um,

24. So ad allt Folk a Jordunne meige þeckia Hond DROTTins, hvad megtug hun er, so ad þier alla Tijma ottest DRottinn ydar GUd.

## V. Capitule.

Israels Børn eru (I) umskorenn, og (II) hallda Paaska.

I. Enn þa ad nu aller Amoritanna Kongar, sem biuggu j Vestur Aatt hinumeigenn Jordanar, og so aller Cananitanna Kongar, hiaa hafenu, heyrdu þad, ad DROTTinn hafde þurkad Jordan fyrer Israels Børnum a medan þeir geingu þar yfer, þa ædrudust þeirra Hiortu, so ad eingenn Hugarhreyste

hreyste var framar meir med þeim, fyrer Israelis Bornum.

2. A þeim Tijma sagde DROTTinn til Josua, Gior þier (a) Steinknijfa, og umskier Israels Born aptur j annad Sinn.

(a (Steinknijfa) þad er, hvassa so sem a Steine brynda. Psal. 89, 44. Avertisti Petram Gladii ejus. Skarpleike hans Sverds er slÿofgadur, so þad kann ecke ad bijta.

3. Pa giorde Josua sier Steinknijfa, og umskar Israels Born a þeirre Hæd (b) Araloth.

(b) (Araloth) þad er, Yferhud.

4. Og þesse er Ordsokenn hvar fyrer Josua umskar allt Folk Karlkins, sem komed var af Egyptalande, þviad allt Strijds-Folk var andad a Eydemorku, a Veigenum, þa þeir fooru af Egyptalande, þviad allt þad Folk sem ut gieck var umskored.

5. Enn þad allt Folk sem fæddest j Eydemorkenne, a Veigenum, þa þeir ferdudust fra Egyptalande, var ecke umskored.

6. Þvi Israels Børn geingu j Fiørutijge aar j Eydemorkenne þangad til ad allt þad Strijds-Folk sem kom af Egyptalande var daudt, þviad þeir hlyddu ecke Raust DROttins. So sem DROTTinn hafde svared þeim, ad þeir skylldu ecke sioa þad Land, sem DROTTinn soor þeirra Fedrum, ad giefa oss eitt Land, þar sem Miolk og Hunang flytur j,

7. Þeirra Born, sem upp voru komenn j þeirra Stad, umskar Josua, þvi þeir hofdu Yferhwd, og voru ecke umskorner a Veigenum.

8. Og sem Folked var alltsaman umskored, þa voru þeir kirrer j sijnum Stad j Herbwdunum, þar til þeir urdu heiler.

9. Og DRottinn sagde til Josua, J Dag hefe Eg teked Egyptalands Brixle fra ydur, og þesse Stadur kallast Gilgal allt til þessa Dags.

II. 10. Og sem ad Israels Born hofdu Herbwder sijnar j Gilgal, þa hielldu þeir Paaska, a Vollum Jericho, þann Fiortanda Dag Maanadarins ad Kvollde.

11. Og aatu af Landsins Korne, a odrum Deige Paaska, sem var Osyrt Braud, og steikt Ax, riett a þeim sama Deige.

12. Og Man þraut, a þeim odrum Deige, sem þeir aatu af Landsins Korne, so Israels Born hofdu ecke þadann j fra Man, helldur aatu þeir af Canaans Lands Korne a sama aare.

13. Og þad skiede so, þa Josua var hiaa Jericho, ad hann upplypte sijnum Augum, og hann saa, ad þar stod Madur gagnvart honum, med brugdnu Sverde j hende. Og Josua gieck til hans, og sagde til hans, Ertu af voru Lide, eda vorra Ovina?

14. Hann svarade og sagde, Nei ecke, helldur er eg Hofdinge yfer DROTTins Her, og em nu komenn. Pa fiell Josua til Jardar a sitt Andlit, og tilbad, og sagde til hans, Hvad seiger minn Herra til sijns Pienara?

15. Enn Hofdingenn yfer Guds Her sagde til Josua, Drag þijna Skoo af þijnum Footum, þvi þesse Stadur er Heilagur sem þu stendur a. Og Josua giorde so.

## VI. Capitule.

(I) Jericho Borg er unnenn, og (II) Løgd j Eyde.

I. Enn Jericho var aptur luckt og bivorud fyrer Israels Bornum, so ad eingenn maatte þar komast wt nie jnn.

2. Og DRottinn sagde til Josua, Sioa þar, Eg hefe giefed Jericho med hennar Konge og Strijds Monnum j þijnar Hendur.

3. Laat alla Strijdsmennena ganga j kringum Stadenn einusinne, og gior so j Sex Daga.

4. Enn a þeim Siounda Deige, þa laat Prestana taka þær Sio Fagnadar-aarsins Basunur framme fyrer Ørkenne, og ganga a þeim Sjøunda Deige Sio Sinnum j kringum Stadinn, og laat Prestana blaasa j Basunurnar,

5. Og þa blaased er j Fagnadar aars Hornenn, so þier heyred Dyneinn Basununnar, þa skal allt Folked giora eitt miked Heroop, þa munu

munu Stadarins Mwrvegger hrynia nidur, og Folked skal falla jnn j Stadinn, sierhvør riett framm sem hann er staddur.

6. Pa kallade Josua, Son Nun, Prestana, og sagde til þeirra, Bered Sattmaals Ørkena, og læted Sio Presta bera Sio Fagnadarærsins Basunur undann Ørk DRottins.

7. Og hann sagde til Folksins, Fared af stad, og ganged j kringum Stadenn, og hvør sem vopnadur er gange hann framm undann Ørk DRottins.

8. Og sem Josua hafde sagt þetta til Folksins, þa bæru þeir Sio Prestar, þær Sio Fagnadar ærsins Basunur fyrer Ørk Drottins, og geingu, og blesu j Basunurnar, og Sattmaals Ørk DRottins filgde þeim a epter,

9. Og þeir sem herklædder voru geingu undann Prestonum, þeim sem j Basunurnar blesu, og Alþijdu Hoopurinn epterfilgde Ørkenne, og blesu j Basunur.

10. Enn Josua baud Folkenu og sagde, Þier skulud ecke giora nockud Heroop, og læted ecke heyra ydar Raust, og ecke eitt Ord ganga af ydar Munne, fyrr enn a þeim Deige ad eg seige til ydar, Æped eitt Herhroop, so skulud þier æpa eitt Herhroop.

11. So gieck nu Ørk DRottins einu sinne j kringum Borgena, og kom j Herbwdernar, og var þar um Nottena,

12. Þvi Josua plagade ad standa ærla upp a Morgna, Og Prestarner bæru Ørk DRottins.

13. Og þeir Sio Prestar bæru þær Sio Fagnadar ærsins Basunur undann Ørk DRottins, og geingu og blesu j Basunurnar, Enn þeir sem vopnader voru geingu fyrer þeim, Og Alþyduhopurenn gieck epter Ørk DRottins, og blesu j Basunurnar.

14. Þeir geingu og so þann annann Dag eitt sinn kringum Stadenn, og komu aptur j Herbwdernar, So giordu þeir j Sex Daga.

15. Enn þann Siounda Dag stodu þeir ærla upp j Dogun, og geingu j kringum Stadenn Siosinnum, epter sama hætte, so þeir komu Siosinnum a þessum einum Deige j kringum Stadenn.

16. Og a þeirre Sioundu Reisu, sem Prestarner blesu j Basunurnar, þa sagde Josua til Folksins, Æped eitt Herop, þvi DRottinn hefur giefed ydur Stadenn.

17. Enn þesse Stadur, og allt þad sem er j honum, skal vera Bannfært DROTTni. Skiækiann Rahab skal alleina Lijfe hallda, og aller þeir sem eru j hennar Hwse, þvi hun fol þa Sendemenn sem vær voru sender af oss.

18. Enn eins kostar vakted ydur fyrer þvi Bannfærda, so þier bannfæred ecke ydur, ef þier taked nockud af þvi sem bølvad er, og giored Israels Herbwder bannfærdar þar med, og komed þeim j Olucku.

19. Enn allt þad Silfur og Gull, so og lijka Koparkier og Jarnkier, þad skal vera heilagt fyrer Drottne, so þad kome til Drottins Fiesiodar.

20. Og Folked æpte eitt Heroop, og blesu j Basununnar, þviad þegar Folked heyrde Basunurnar hvell, þa giorde þad eitt miked Heroop, Og * Mwrveggerner hrundu nidur, og Folked gieck upp j Stadenn, hvør hid giegnsta framm fra sier. * Ebr. 11, 30.

21. So unnu þeir Stadenn, og foreyddu ollu þvi sem j Stadnum var, med Sverds Eggium, bæde Monnum og Konum, Ungum og Gomlum, Nautum, Saudum og Osnum.

22. Enn Josua sagde til þeirra tveggia Manna sem hofdu niosnad um Landid, Fared j Hws þeirrar Lausakonu, og leided Konuna wt þadan, med ollu þvi sem henne til kemur, so sem þier hafed svared henne.

23. Pa geingu þeir ungu Menn, Niosnararner, þar jnn, og leiddu * Rahab wt, og so hennar Fodur og Modur, og Brædur, og allt þad sem henne tilkom, og alla hennar Ætt, og lietu hana vera fyrer utann Israels Herbwder. * Ebr. 11, 31.

II. 24. Enn Borgena uppbrenndu þeir med

Ellde, og allt þad sem j henne var, utann Silfur og Gull, Koparkier og Jearnkier, þad logdu þeir til Fiesiodar j Hwos DRottins.

25. Enn Josua liet Rahab þa Portkonu, og hennar Fodur Hwos lifa, og allt þad henne tilheyrde. Og hun bio a millum Israel, jnn til þessa Dags, þar fyrer, ad hun fal þa Sendeboda, sem Josua hafde utsendt ad niosna um Jericho.

26. A þeim sama tijma svor Josua, og sagde, Bolvadur sie sa Madur fyrer DRottni sem uppreiser og bigger þennann Stad Jericho. Þegar hann leggur hans Grundvoll, þa gillde þad hans Frumgietna Son, enn þegar hann setur hans Port, þa koste þad hans yngsta Son.

27. So var nu DRottinn med Josua, ad um oll Lond barst hans Rikte.

## VII. Capitule.

(I) Stuldur Achans, og (II) hans Straff.

I. Enn Israels Born forgripu sig a þvi enu bannfærda, þviad Achan, Son Carmi, Sonar Sabdi, Sonar Serah, af Ætt Juda, tok nockud af þvi sem bannfært var, þa gramdest Reide DRottins yfer Israels Bornum.

2. Enn sem Josua nu utsende Menn fra Jericho mot Ai, sem ad liggur hia Beth Aven austur fra BethEl, og sagde til þeirra, Fared upp, og niosned um Landed. Og þa þeir voru uppfarner, og hofdu niosnad um Ai,

3. Þa komu þeir aptur til Josua, og sogdu til hans, Lat ecke allt Folked fara upp þangad, helldur nær tvær eda þriar Þusunder Manna, ad þeir fare þar upp, og slae Ai, so ad allt Folked omake sig ei, þviad þeir eru fæer.

4. So foru af Folkenu upp þangad nær þriar Þusunder Manna, og þeir flydu fyrer Monnunum af Ai.

5. Og þeir af Ai sloou nær Sex og Þriatiju Menn af þeim, og raku þa fra Portunum allt til Sabarim, og sloou þa nidur epter Veigenum, þa ædradist Folksins Hiarta, og vard ad Vatne.

6. Og Josua reif sijn Klæde, og fiell framm a sitt Andlit til Jardar, fyrer Ork DRottins, allt til Kvollds, hann og Olldungarner af Israel, og jusu Molldu uppa sijn Hofud.

7. Og Josua sagde, O DROTTinn, DROTTinn! þvi leiddir þu þetta Folk yfer Jordan, til þess, ad giefa oss j Hendur þeirra Amoritanna, ad deyda oss? O ad vier hefdum vered kirrer hinumeigenn Jordanar, sem vier hofdum biriad!

8. Avi minn DRottinn! Hvad skal eg seigia, med þvi Israel snyr Bake vid sijnum Ovinum?

9. Þegar Cananitar, og aller Landsins Innbyggiarar spyria þetta, Þa munu þeir umkringia oss, og afmaa vort Nafn af Jordunne, Hvad villt þu þa giora vid þitt hid mikla Nafn?

10. Þa sagde DROTTinn til Josua, Statt upp, Þvi liggur þu so framm a þijna Asionu?

11. Israel hefur syndgast, og yfertradt minn Sattmaala sem eg baud þeim, Þar med toku þeir af þvi Bannfærda, stalu og lugu, og logdu þad a millum sinna Fiarhluta.

12. Israels Born kunna ecke ad standa j mote sijnum Ovinum, helldur verda þeir ad snua Hriggnum til sinna Ovina, af þvi, ad þeir eru j Banne, Eg mun ecke hier epter vera med ydur, ef þier afmaed ecke þad Bann j fra ydur.

13. Statt upp, og helga þu Folked, og seig, Helged ydur til morguns. Þvi so seiger DROTTinn Gud Israels, Bann er a medal þijn Israel, og þui gietur þu ecke staded a moote þijnum Ovinum, þar til ad þier skilied þetta Bann fra ydur.

14. Og þier skulud koma snemma hingad, hvor ein Ættkvijsl epter adra. Og hvor su Ættkvijsl sem DROTTinn hitter uppa, skal koma framm, þeir einu Ættingiar epter adra. Og hvoria Ættingia sem DROTTinn hitter a, þeir skulu koma framm, eitt Hwos epter hid annad, og hvort Hwos sem DRottinn

tinn hitter a skal koma framm, eirn Hwsbon-
de epter hinn annann.

15. Enn sa sem fundenn verdur j Banne,
sa skal brennast j Ellde, med ollu þvi sem hann
hefur, Sokum þess, ad hann yfergieck Saatt-
maala DROTTins, og giorde eitt heimsku-
par j Israel.

16. Josua stod upp snemma Morguns,
og leidde Israel framm, eina Ættkvijsl epter
adra, og kom Hlutur a Kin Juda.

17. Og sem hann leidde Ættkvijsl Juda
framm, þa fiell hluturenn yfer Serahiters
Ætt.

18. Enn sem Serahiters Ætt kom framm,
eirn Hwsbonde epter annann, þa fiell Hlu-
tur yfer Sabdi. Og sem hann leidde sitt
Hws framm, einn Hwsbonda epter annann,
þa fiell uppa Achan, Son Charmi, Sonar
Sabdi, Sonar Serah, af Kine Juda.

19. Og Josua sagde til Achan, Minn
Son, gief DROTTni Gude Israels Dijr-
dena, og gief honum Lofstyrenn, og seig mier til
hvad þu hefur giort, og leyn engvo fyrer mier.

20. Achan svarade Josua, og sagde, Sann-
lega, eg hefe misgiort j mote DRottni Isra-
els Gude, Svo og svo giorda eg.

21. Eg sa eina forkostulega Babyloniska
Kaapu medal Herfangsins, og Tvo Hundrud
Sikla Silfurs, og eina Gulltungu (a) fimtijge
Sikla verda, ad vikt, þettg agyrntunst eg, og
tok eg þad, Og sia, þetta er j Jord nidur
grafed j minne Tialldbwd, og Silfred þar
under.

(a) (Tunga) Ein Spanna giörd svo sem Tunga.

22. Þa sende Josua Sende-Menn þangad,
þeir runnu til Tialldbwdarennar, Og sia,
þad var saled j hans Tialldbwd, og Silfred
þar nidur under.

23. Og þeir tooku þad upp wr Bwoden-
ne, og færdu til Josua, og til Israels Bar-
na, og lögdu þad framm fyrer DRottenn.

II. 24. Sijdann took Josua, og allur Israel
med honum, Achan, Son Serah, og svo
Silfred, Kaapuna og Gulltunguna, hans
Sonu og Dætur, hans Uxa og Asna, og
Saude, hans Tialldbwd, og allt þad sem
hann hafde, og fluttu þad upp j Achors
Dal.

25. Og Josua sagde, Af þvi þu hefur
hrellt oss, þa hrelle DROttinn þig a þessum
Deige, Og allur Israel lamde þa Griote, og
brenndu þa upp med Ellde,

26. Og þa þeir höfdu grytt þa, giordu
þeir eirn stoorann Griot-haug yfer þeim, hann
stendur allt til þessa Dags. So snere Drot-
tinn sier fra sinne grimmdar Reide, Og þar
af kallast þesse same stadur Achors Dalur,
allt til þessa Dags.

## VIII. Capitule.

(I) Josua vinnur, og (II) Eydeleggur Borgena Ai; (III) Bygger Eitt Alltare a Ebal Fialle.

I. Og DRottinn sagde til Josua, Ottast
ecke, og kvijd ecke, tak med þier alla
Bardaga Menn, og tak þig upp, og far upp
til Ai. Sia, Eg hefe gefed Kongenn af Ai,
og hans Folk, Landed og Borgena, j þijnar
Hendur,

2. Og þu skallt giora vid Borgena Ai, og
hennar Kong, so sem þu giorder vid Jericho,
og hennar Kong, fyrer utann þad, ad þier
skulud skipta þeirra Herfange, og þeirra Fie,
ydar a millum, og setied Launsaatur a bak vid
Borgena.

3. Þa tok Josua sig upp, og allt Strijds-
Folked, til ad ferdast up til Ai. Og Jo-
sua wtvalde þriatiju Þusund Strijdsfærra
Manna, og sende þa wt um Nott,

4. Og baud þeim og sagde, Siaed til,
þier skulud vera j Launsaatinne Bak vid Bor-
gena. Vered ecke miog langt fra Borgenne,
og vered allersaman reidubwner.

5. Enn eg, og þad allt Folk sem med mier er,
vilium fara til Stadarins. Og sem þeir fara
wt jmoote oss, so sem fyrr, þa vilium vier
flya undann þeim,

6. So ad þeir fare wt epter oss, þar til vier
gietum lockad þa nockud fra Borginne, þvi
Mm 2 þeir

þeir munu þeinkia, ad vier munum flya undann þeim, so sem ꝏdur fyrr. Enn a medan ad vier flyum fyrer þeim,

7. Þa skulud þier riisa upp vr Launsꝏtrenu, og inntaka Borgena, þviad DROttinn ydar GUD mun giefa hana j ydar Hendur.

8. Enn þa þier hafed unned Stadenn, þa setied Elld j hann, og gioried epter Orde DROTTJNS, Sioied, eg hefe skipad ydur þetta.

9. Svo sende Josua þa af Stad, og þeir geingu af Stad j Launsꝏtred, og stadnæmdust j millum Bethel og Ai, j Vestur fra Ai. Enn Josua var um Nottena hiꝏ Folkenu.

10. Og stood ꝏrdeigis upp um Morgunenn, og fylkte Folkenu, og foor upp med þeim Ellstu af Jsrael undann Folkenu jmoot Ai,

11. Og allt Strijds-Folked sem var hiꝏ honum, fooru upp, geingu framm, og komu til Borgarennar, og sloou sijnum Herbꝏdum Nordur fra Ai, so ad þar var ad eins eitt Dalverpe j millum hans og Ai.

12. Og hann hafde teked nær Fimm Þusund Manna, og sette þa j Launsꝏtred, j millum Bethel og Ai, Vestur fra Borginne.

13. Og þeir skickudu nidur Lidenu vr ollum Herbꝏdum, sem voru Nordur fra Borgenne, so ad (Fylkingar) Endenn tok Vestur fyrer Stadinn. So gieck Josua þa somu Nott midt j Dalinn.

14. Enn sem Kongurenn af Ai sꝏ þetta, þa flyttu þeir sier, og biuggu sig vt, þegar snemmindes, og Mennerner af Stadnum gꝏfu sig vt jmoot Jsrael til Strijds, med ollu sijnu Folke, a eirn tilsettann Stad a Mørkenne, þvi hann visse ecke af, ad Launsꝏtur var nppa hann, a bak vid Borgina.

15. Enn Josua og allur Jsrael letu sem þeir være slegner af þeim, og flꝏdu a Veigenn til Eydemerkur,

16. Þa var sammankallad allt Folked j Stadnum, ad sækia epter þeim, og þeir sꝏktu epter Josua, og gꝏfu sig vt af Borgenne,

17. So þar vard ecke eirn Madur epter j Ai og BethEl, sem ad eige være vtfarenn ad sækia epter Jsrael, og letu Borgena standa opna, so þeir mættu sækia epter Jsrael.

18. Þa sagde DROTTinn til Josua, Utrettu þa Lensu sem þu hefur j þinne Hende jmoti Ai, þvi Eg vil giefa hana j þijnar Hendur. Enn sem Josua upplypte Lensunne, sem hann hafde j sinne Hende jmot Borgenne.

19. Uppreiste Launsꝏtred sig skyndelega, af sijnum Stad, og hlupu, epter þad hann hafde vtriett sijna Hønd, og komu j Borgena, og unnu hana, og flyttu sier, og brenndu hana a Bꝏle.

20. Og Ai Borgar Menn sneru vid og sꝏu til Baka, og sꝏu þad, ad Reykurenn gieck upp af Stadnum til Himens, enn þeir gꝏtu hvorge flꝏed, hvorke hingad nie hangad. Og þad Folk sem flꝏde til Eydemerkur, snere sier vid aptur jmoote þeim, ad ellta þa.

21. Sem Josua og allur Jsrael sꝏu, ad þeir sem j Launsꝏtrenu voru, høfdu unned Borgena, first ad Reykurenn gieck upp af Stadnum, þa sneru þeir aptur, og slou Mennena af Ai.

22. Og þeir af Borgenne komu og vt j moote þeim, so ad þeir voru komner midt a millum Jsrael, sem voru a bꝏdar Sijdur kringum þa, og þeir sloou þa, þar til ad eingenn stood epter af þeim, nie kunne undann ad komast.

23. Enn Kongenn af Ai gripu þeir lifanda, og leiddu hann fyrer Josua.

24. Og þa Jsrael hafde sleged jhel alla Jnnbyggiara Ai, a Mørkenne, og a Eydemørkenne, þa sem elltu þa, og fiellu aller fyrer Sverds Eggium, Þar til þeir voru aller fallner, þa snere allur Jsrael sier til Ai, og sloou hana med Sverds Eggium,

25. Enn aller þeir sem fiellu a þeim Deige, bæde Menn og Kvinnur, voru Tolf Þusunder, allt Folked vt af Ai.

26. Josua took ecke sijna Hønd aptur til sijn, med hvorre hann upphiellt Lensunne, fyrr enn allur Borgar Lydur Ai var foreydur.

27. Utann Busmala og Herfange Borgarennar skipte Jsrael sijn j millum, epter Orde DROTTins, sem hann hafde boded Josua.

II. 28. Enn Josua uppbrennde Ai, og giorde eina Hrwgu þar af æfinnlega, sem enn nu liggur þar j Dag.

29. Sijdann liet hann heingia Kongenn af Ai upp j eina Eik, allt til Aptans. Enn epter Solarfall so baud hann ad hans Likame skyllde takast nidur af Trienu, og þeir kostudu honum under Stadar Ported, og giordu eina stoora Griothrwgu yfer honum, hvor ad nu enn er þar a þessum Deige.

III. 30. Epter þetta biggde Josua DRottni Jsraels Gude eitt Alltare a Fiallinu Ebal,

31. (So sem Moses Guds Pion baud Jsraels Bornum, so sem skrifad stendur j Mose Logmaals Bok, eitt Alltare af heilum Steinum, sem ecke voru hoggner med Jaarne) og offrade DROTTni þar yfer Brennefoorner og Packlætis Foorner.

32. Og skrifade þar uppa Steinana, þad Annad Logmaal, sem Moses fyrer skrifade Jsraels Bornum.

33. Og allur Jsrael, med sijnum Olldungum og Hofudsmonnum, og Domendum, stoodu tveim meigenn Erkurennar, þvert yfer fra Prestunum af Levi, sem baaru Saattmaals Ork DROTTins, so vel þeir Utlendu, sem hiner Innfæddu, Helmingur a mots vid Fialled Grisim, og annar Helmingur a mote Ebal Fialle, sem Moses Guds Pienare aadur boded hafde, ad blessa Jsraels Folk.

34. Epter þad liet hann vthroopa oll Logmaalsins Ord, um Blessan og Bolvan, sem þad skrifad stendur j Logmaals Bokenne.

35. Þar var ecke eitt Ord sem Moses hafde boded, ad Josua liet þad ecke vthroopa fyrer ollu Jsraels Folke, og fyrer Kvinnum og Bornum, og fyrer þeim vtlendsku sem voru a medal þeirra.

## IX. Capitule.

Slægdarfull Fyrertekt Gibeonitanna.

Þegar þetta feingu ad spyria aller þeir Kongar sem þessumeigenn Jordanar bivggu, a Fiallbiggdunum uppe, og lijka þeir sem biuggu a Sliettlendenu, og aller sem voru vt med þvi mikla Hafe, og so þeir sem voru hiaa Fiallenu Libanon, sem voru Hethitar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar,

2. Þa sofnudust þeir saman, med einu samhellde, til Bardaga, jmote Josua og Jsrael.

3. Enn Borgarmenn af Gibeon, þa þeir friettu hvad Josua hafde giort Jericho og Ai,

4. Þa upphugsudu þeir þetta brøgdugt Raad. Þeir fooru af Stad, og sendu Bod vt, og tooku gamla Secke a sijna Asna, og gamlar sundurrifnar bættar Vijnfloskur.

5. Og gamla bætta Skoo a sijna Fætur, og færdu sig j Forn Klæde, og allt þad Braud, sem þeir tooku med sier, var hardt og miglad.

6. Og þeir geingu fyrer Josua, j Herbudernar hiaa Gilgal, og sogdu til hans, og til alls Jsraels, Vier erum komner vr fiarlægu Lande, so giored nu eirn Saattmaala vid oss.

7. Þa svarade allur Jsrael til Hevitanna, Maaskie ad þu byer a millum vor, hvornenn meigum vier giora Saattmaala vid þig?

8. Enn þeir sogdu til Josua, Vier erum þijner Pienarar. Josua svarade þeim, Hvorier erud þier, og hvadann komud þier?

9. Þeir sogdu, Þijner Pienarar eru komner af miog Fiarlægu Lande, sokum DRottins Þijns Guds Nafns. Þvi vier hofum heyrt hans Rikte, og allt þad sem hann giorde j Egyptalande,

10. Og allt þad sem hann giorde þeim Tveimur Kongum Amoritanna, hinumeigenn Jordanar, Sihon, Kongenum af Hesbon, og so Og, Kongenum af Basan, sem bio j Astharoth.

11. Og þvi sogdu vorer Olldungar, og aller vors Lands Innbyggiarar, Taked Fædslur med ydur a Veigenn, og fared til fundar vid þa, og seiged til þeirra, Vier erum ydrer Pienarar. So giored nu einn Saattmaala vid oss.

12. Þetta vort Braud, sem vier tookum af

 vorum

vorum Heimelum, oss til Fædslu, var nytt, þa vier foorum heimann, til ydar, enn sioaed, nu er þad hardt og miglad.

13. Og þessar Vijnslestur fylltum vier nyar, og sioaid ad þær eru j sundurrifnar, og þesse vor Klæde og Skoor eru nu ordinn forn, a þessare miog langre Reisu.

14. So toku Hofudsmennerner af þeirra Mat, og spurdu ecke Munn DRottins þar ad.

15. Og Josua giorde Frid vid þa, og uppsette eirn Scattmoala vid þa, ad þeir skylldu halloa sijnu Lijfe, og þeir enu yppurstu af Sofnudenum sooru þeim.

16. Enn þremur Dogum þar epter, sem þeir hofdu giort Scattmoalann vid þa, spurdu þeir þann kvitt, ad þeir oattu byggder skamt fra þeim, og ad þeir mundu bwoa j millum þeirra.

17. Þvi þa Israels Born hofdu oaframm fared, þa komu þeir a Pridia Deige til þeirra Borga, sem kalladest Gibeon, Chaphira, Beeroth, og Kiriath Jearim.

18. Og þeir sloou þa ecke, þvi Hofudsmennerner fyrer Alþydunne hofdu svared þeim Eida, vid DROTTinn Gud Israelis. Enn sem allur Sofnudurinn kurrade um þetta j moote Hofdingiunum,

19. Þa sogdu aller Hofdingiar alls Almwogans, Vier soorum þeim vid DRottinn Israels Gud, þvi meigum vier ecke snerta þa.

20. Enn þad vilium vier giora, Loatum þa lifa, so þar kome ecke Reide yfer oss, sokum þess Eids sem vier hofum svared þeim.

21. Og Hofdingiarner sogdu til þeirra, Loated þa lifa, so þeir hoggve Vid, og bere Vatn fyrer alla Samkunduna, so sem Hofdingiarner hafa sagt til þeirra.

22. Sijdan kallade Josua þa, og talade vid þa og sagde, Þvi svikud þier oss, og sogdud, ad þier værud j fiarska vid oss, enn þier bwoed þo midt a millum vor?

23. Þvi skulud þier nu bolvader vera, so ad þar skal ei þriota Præla af ydur, sem hoggva Vid og bera Vatn til mijns Guds Hus.

24. Þeir svorudu Josua, og sogdu, Þad er þijnum Pienorum tilsagt, ad DROTTinn Gud tilsagde Mose sijnum Pienara, ad hann villde giefa ydur allt Landed, og eydeleggia alla Landsins Innbyggiara fyrer ydur, þvi urdum vier miog hrædder um vort Lijf fyrer ydur, og hofum þetta giort.

25. Enn sioa nu, vier erum j þijnum Hondum, Gior vid oss hvad sem þier synest gott og riett ad giora vid oss.

26. Og so giorde hann vid þa, og frelsade þa fra Hende Israels Barna, ad þeir slou þa ecke j hel.

27. Og a þeim sama Deige skipade Josua þa til ad hoggva Vid, og bera Vatn, handa Samkundunne, og ad Alltare Drottins, inn til þessa Dags, j þeim Stad sem hann munde utvelia.

## X. Capitule.

Josua vinnur Dasdsamlegann Sigur a Amoritum.

Þegar ad Adoni Zedech, Kongurenn af Jerusalem, heyrde, ad Josua hafde unned Ai, og foreydt hana, og giort vid Ai, og hennar Kong, so sem hann hafde giort vid Jericho, og Kong hennar, Og ad þeir af Gibeon hofdu giort Frid vid Israel, og voru nu komner a medal þeirra,

2. Þa slo yfer þa mikelle Hrædslu, (Þvi Gibeon var einn stoor Stadur, eins so sem konungleg Borg, og stærre enn Ai, og aller Borgarar þar inne voru gooder Strijdsmenn,)

3. Sende hann til Hoham, Kongsins j Hebron, og til Piream, Kongsins af Jarmuth, og til Japhia, Kongsins af Lachis, og til Debir, Kongsins af Eglon, og liet seigia þeim.

4. Komed hier upp til mijn, og veited mier stirk, so vier mættum sloa Gibeon, þviad þeir hafa giort Frid vid Josua og Israels Born.

5. Þa komu þesser Fimm Kongar Amoritanna til samans, og foru upp þangad, Kongurenn af Jerusalem, Kongurenn af Hebron, Kon-

Kongurenn af Jarmuth, Kongurenn af Lachis, og Kongurenn af Eglon, med allann þeirra Her og Magt, og settust um Gibeon, og strijddu a hana.

6. Enn þeir af Gibeon sendu til Josua, j Herbuudernar hiaa Gilgal, og lietu seigia honum, Snu ecke þinne hende fra þijnum Pienurum, Kom þu sem first upp hingad til vor, frelsa og hiaalpa oss, Þviad aller Kongar Amoritanna, sem buua a Fiallbyggdum, hafa saman safnast a moote oss.

7. Josua ferdadest upp fra Gilgal, og allt Strijdsfolk med honum, og aller strijds-fær-rer Menn.

8. Og DROTTinn sagde til Josua, Eige skalltu oottast fyrer þeim, þvi Eg hefe giefed þa j þijnar Hendur. Eingenn af þeim skal standast fyrer þier.

9. Pa kom Josua a ovart yfer þa, Þviad alla Nottena j gegnum var hann a ferd upp fra Gilgal.

10. Enn DROTTinn giorde þa hrædda fyrer Israel, so ad þeir sloou eitt miked slag j Gibeon, og raku þa a Flootta, a þann Veg sem liggur til Beth-Horon, og sloou þa allt til Aseka og Makeda.

11. Enn sem þeir flydu fyrer Israel, nidur a þann Veg sem liggur ofann til Beth Horon, þa liet DROTTinn stoort Hagl falla ofann af Himnum, yfer þa, allt til Aseka, so ad þeir deydu, Og miklu fleyre af þeim doou af þvi sama Hagle, helldur enn Israels Born deyddu med Sverde.

12. A þessum sama Deige, þa DRottinn hafde giefed þa Amorita under Israel, þa talade Josua til DRottins, og sagde, ad nærverandi Israel, Sool! stattu kirr j Gibeon, og Tungled j Dalnum Aialon!

13. Pa stod Solenn og Tungled kirr, þar til ad Folked hafde hefnt sijn a sijnum Ovinum. Mun þad ecke skrifad j Bok hins Riettloata? So stod Solenn midt a Himnenum, og dro undan ad ganga nidur allann þann Dag.

14. Og þar var eingenn Dagur þessum lijkur, hvorke ædur nie sijdann, þa DRottinn hlydde eins Manns Raustu, Þviad DROTTINN bardest fyrer Israel

15. Enn Josua ferdadest aptur til Herbudanna j Gilgal, og allur Israel med honum.

16. Enn þeir Fimm Kongar flydu, og foldu sig i þeim Heller hiaa Makeda.

17. Pa var Josua sagt, Vier hofum funded Fimm Konga falda j þeim Heller hiaa Makeda.

18. Josua sagde, Velltid stoorum Steinum fyrer Hellers Munnann, og setied Menn þar fyrer sem þa vardveite.

19. Enn þier vered ecke kirrer, helldur sæked epter ydrum Ovinum, og slaaed þa sem seinaster eru, og laated þa ecke komast jnn j sijnar Borger, Þviad DRottinn ydar Gud hefur giefed þa j ydar Hendur.

20. Og þa Josua og Israels Born hofdu endad þann miog mikla Bardaga a þeim, og sleiged þa miog, þa komu þeir sem epter voru ordner af þeim j þa fostu Stade.

21. Pa kom allt Folked aptur til Herbuda til Josua, hiaa Makeda, med Fride, og eingenn þorde ad hræra sijna Tungu fyrer Israels Bornum.

22. Enn Josua sagde, Opned þann Hellers Munnann, og leided þa Fimm Konga til mijn.

23. Þeir giordu so, og leiddu þessa Fimm Konga til hans, wr Hellernum, Kongenn af Jerusalem, Kongenn af Hebron, Kongenn af Jarmuth, Kongenn af Lachis, og Kongenn af Eglon.

24. Enn sem þesser Fimm Kongar voru wtleidder til hans, þa kallade Josua saman allann Israel, og sagde til Hofdingianna yfer Strijdsfolkenu, sem fooru med honum, Komed hingad, og stijged med Footunum upp a Hoalsa þessara Konga. Og þeir giengu framm og stigu a þeirra Hoalsa med Footunum.

25. Sijdann sagde Josua til þeirra, Ottest ecke, og vered ohrædder, vered Hughraustter

er og oefader, þviad DRottinn mun so giora vid alla ydar Ovine, sem þier berieſt j mote.

26. Sijdan ſloo Josua þa og deydde þa, og heingde þa uppa fimm Eikur, Og þeir heingu j Eikonum allt til Kvollds.

27. Enn ad Solar falle baud hann ad taka þa nidur af Eikonum, og kaſta þeim j þann Heller, sem þeir hofdu faled ſig j, og þeir baru ſtoora Steina fyrer Hellirs Munnann, og eru þeir þar enn nu a þeſſum Deige.

28. Josua vann og þennann ſama Dag Makeda, og ſloo hana med Sverds Eggium, þar til hennar Kong, og eydelagde hana, og allar Saaler ſem j henne voru, og liet ongvann epter lifa, Og eins giorde hann vid Kongenn af Makeda, ſem hann hafde giort vid Kongenn af Jericho.

29. Sijdan foor Josua, og allur Jſrael med honum, fra Makeda til Libna, og ſtrijdde a hana,

30. Og DRottinn gaf hana og ſo j Jſraels Hendur, og ſo hennar Kong, og hann ſlo hana med Sverds Eggium, og allar Saaler ſem þar jnne voru, og liet ongvann þar epter verda, og hann giorde eins vid hennar Kong, ſem hann giorde vid Kongenn j Jericho.

31. Sijdan foor Josua, og allur Jſrael med honum, fra Libna til Lachis, ſloo Hervirke um hana, og ſtrijdde a hana,

32. Og DROTTinn gaf og Lachis j Jſraels Hendur, ad þeir unnu hana annars Dags. Og þeir ſloou hana med hvoſſu Sverde, og allar Saaler ſem þar jnne voru, allt eins og hann hafde giort Libna.

33. A þeſſum ſama tijma foor Horam, Kongur af Geſer upp til ad hiaalpa Lachis, Enn Josua ſlo hann, og allt hans Folk, ſo þar lifde eingenn epter.

34. Sijdan foor Josua fra Lachis, med allann Jſrael, til Eglon, og ſetteſt um hana, og ſtrijdde uppa hana.

35. Og vann hana a ſama Deige, og ſloo hana med Sverds eggium, og eydelagde þær allar Saaler ſem þar jnne voru þann ſama Dag, j allann maata eins og hann hafde giort Lachis.

36. Epter þetta foor Josua med allann Jſrael, upp fra Eglon, og til Hebron, og ſtrijdde a hana, og vann hana,

37. Og ſlo hana med Sverds Eggium, og hennar Kong, med ollum hennar Stodum, og þær allar Saaler, ſem j þeim voru, og liet ongvann epter verda, j allann maata eins og hann giorde vid Eglon, og foreydde henne, og ollum þeim Saalum ſem þar jnne voru.

38. Pa ſnere Josua aptur med ollum Jſrael til Debir, og ſtrijdde a hana,

39. Og yfervann hana, og hennar Kong, og alla hennar Stade, og ſloo hana med bitru Sverde, og foreydde þær allar Saaler, ſem þar voru jnne, og liet ongvann epter vera. Eins og hann giorde vid Hebron, ſo giorde hann og vid Debir, og hennar Kong, og ſem hann giorde vid Libna, og hennar Kong.

40. So ſlo Josua allt Landed uppa Fiallbyggdenne, og j moot Sudre, og j Dolonum, og hiaa Vatnslækiunum, med ollum þeirra Kongum, og liet ongvann epter verda, og foreydde ollu þvi ſem Anda hafde, ſo ſem DROTTinn Jſraels Gud hafde boded.

41. Og hann ſloo þa fra Kades Barnea, og allt til Gaſa, og allt Landed Goſen jnn til Gibeon,

42. Og yfer vann alla þeſſa Konga med þeirra Londum a einum tijma, þviad DRottinn Jſraelis Gud bardeſt fyrer Jſrael.

43. Og Josua foor aptur til Herbvdanna til Gilgal, med allann Jſrael.

## XI. Capitule.

Josua vinnur Hofud-Borgena Hazor.

Sem Jabin, Kongur af Hazor, heyrde þetta, þa ſende hann Bod til Jobab Kongſins af Madon, og til Kongſins af Simron, og til Kongſins af Achſaph,

2. Og til Konganna j Nordur, ſem þar bigg gu a Fiallbyggdum, og a Sliettlendenu fyrer

Sunnan Cinneroth, og so til þeirra sem bing-
gu j Dolonum, j Naphoth Dor, vot vid
Sioenn,

3. Til Cananitanna, bæde Austur og Vestur,
til þeirra Amorita, Hethita, Pheresita, Je-
busita a Fiallsbyggdonum, og til Hevitanna
nedan under Hermon Fialle, j Mizpa Lande.

4. Þesser fooru vot med allann sinn Her,
eitt miked Folk, so margt sem Sandur hioa
Sio, og miøg marger Hestar og Vagnar.

5. Aller þesser Kongar søfnudu sier tilsa-
mans, og komu og settu sijnar Herbwder j einn
Stad, hioa þvi Vatne Merom, ad hallda
Bardaga vid Jsrael.

6. Og DRottinn sagde til Josua, Eige
skalltu hrædast þa, þviad a Morgun, um þetta
Mund, vil Eg giefa þa alla Slegna fyrer Jsra-
els Bornum, þu skallt þeirra Hesta Limhøgg-
va, og uppbrenna þeirra Vagna j Ellde.

7. Og Josua fiell oforvarande yfer þa, og
allt Strijdsfolked med honum, hioa Vatnenu
Merom, og fiellu yfer þa.

8. Og DROTTinn gaf þa j Jsraelis
Hendur, og þeir felldu þa, og roaku Flottann
allt til þeirrar miklu Zidon, og til þess varma
Vatns, allt til þeirrar stooru Merkur, sem lig-
gur j Austur hioa Mizpa, og þeir slou þa, þar
til ad þar var ecke eirn epter af þeim.

9. Þa giorde Josua vid þa so sem DROt-
tinn hafde boded honum, og limleste Hesta
þeirra, og brennde þeirra Vagna.

10. Og snere sier a þeim sama Tijma, og
yfer vann Hazor, og drap hennar Kong med
Sverde (þvi Hazor var aadur HøfudStadur
fyrer øllum þessum Kongarijkium).

11. Og allar þær Saaler sem voru j þeirre
Borg slou þeir jhel med Sverds Eggium,
og foreyddu þeim, og lietu eckert epter lifa þad
sem Anda hafde, og uppbrenndе Hazor med
Ellde,

12. Þar til vann Josua allra þessara Kon-
ga Stade, og slo þa, og þeirra Konga, med
Sverds eggium, og foreydde þeim, so sem
Moses GUds Þienare hafde boded.

13. Enn a Fiollum brenndu þo Jsraels
Born ongvar Borger, utann Josua brennde
Hazor alleina.

14. Sijdann skiptu Jsraels Born øllu
Herfoange og Fie, med sier, af þessum Stodum,
enn drapu allt Folked med Sverds eggium,
þar til þeir høfdu afmaad þad, og ecke lietu
þeir neitt epter lifa, þad sem Anda hafde.

15. So sem DROTTinn hafde boded
Mose sijnum Þienara, og Moses baud Josua,
so giorde Josua, so ad þar brast ecke neitt
uppa allt þad sem DROttinn hafde bifalad
Mose.

16. So jnntook Josua øll þesse Lond,
sem laau a Fiallbyggdonum, og allt þad sem
liggur til Sudurs, og allt Gosen Land, og
þær Merkurnar, og Dalena, og Jsraels
Fiallbyggder med sijnum Dolum,

17. Fra þvi Fialle sem Londenn sundurdei-
ler, upp til Seir, allt til BaalGad, og til
Breiddarennar Fiallsins Libanon, nedan vid
Fialled Hermon, hann yfervann alla þeirra
Konga, og slo þa til Dauds.

18. Enn langa Tijma aatte hann Orustur
vid þessa Konga.

19. Og þar var eingenn su Borg sem med
Fride villde giefa sig under Jsraels Born,
(utann alleina þeir Hevitar, sem biuggu j Gi-
beon) helldur unnu þeir þær allar med Strijde.

20. Og þad skiede svo af DROTtni, ad
þeirra Hiortu forherdtust, til ad mæta Jsrae-
lis Bornum med Strijde, svo ad þeir skyll-
du foreydast, og aungva Naad finna, hell-
dur ad þeir skylldu eydeleggiast, svo sem
DROTTinn baud Mose.

21. A þeim sama Tijma kom Josua, og
upprætte Enakim af Fiallbyggdum, fra He-
bron, af Debir, af Anab, af øllum Fiall-
byggdum Juda, og af øllum Jsraels Fiall-
byggdum, og foreyddu þeim med þeirra
Stodum.

22. Og liet aungvann blijfa epter af E-
nakim j Lande Jsraels Barna, utann j
Gasa, Gath, og j Asdod, þar urdu nockrer
þeirra epter.

23. So inntook Josua allt Landed, j al-lann Maata so sem DROTTinn hafde sagt til Mosen, og gaf Israel þad til Arftoku, hvorre Ættkvijsl sinn Part. Og Landed liet af ad hallda Strijd.

## XII. Capitule.

Um Herfarer og Sigurvinningar Israels Barna.

Þesser eru þeir Konungar Landsins sem Israels Børn slou, og eignudust þeirra Lønd, hinumeigen Jordanar, jmoot Austre, fra þvi Vatne Arnon, og til Fiallsins Hermon, og allt Sliettlended jmoote Austre.

2. Sihon, Amoritanna Kongur, sem bioo j Hesbon, og Rijkte fra Aroer, sem liggur hioa Arnons Vatns Backa, og midt j Vatnid, og yfer hoalft Gilead, allt til Vatnsins Jabok, sem er Landamerke Ammons Barna,

3. Og yfer þad slietta Landed, jnn til Sioar Cinneroth, til Austurs, og yfer þad slietta Land, til þess Sallta Hafs, j Austur, a þañ Veg til Beth Jesimoth, og fra Sudre, nedan hioa Lækiunum Fiallsins Pisga.

4. Þar ad auk Landamerke Kongsins Ogs j Basan, sem epter var af þeim Risunum, og bio j Astaroth og Edrei,

5. Og rijkte yfer Fialled Hermon, yfer Salcha, og yfer alla Basan, jnn til þeirra Landsmerkia Gesuri og Maachati, og helftena Gilead, sem var Sihons, Kongsins af Hesbon, Landamerke.

6. Moses Þienare DROTTins og Israels Børn sloou þa, Og Moses GUDs Þienare gaf þeim Rubenitum, og Gadditum, og hoalfum Manasse Kinþætte ad jnntaka þa.

7. Þesser eru Landsins Kongar, sem Josua og Israels Børn slou þessumeigenn Jordanar jmot Vestre, fra BaalGad, til Libani Fialls sliettu, til þess Fialls sem j sundurskilur Landed upp jmot Seir, og Josua gaf Israels Ættkvijslum þad til Eignar, hvorium sinn Part,

8. Af þvi sem var a Fiollunum, j Dølunum, og a Morkenne, hioa Lækiunum, j Eydemorkenne, og mot Sudre, Hethitar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar og Jebusitar.

9. Kongurenn af Jericho, Kongurenn af Ai, sem liggur vid Sijdu af BethEl,

10. Kongurenn af Jerusalem, Kongurenn af Hebron,

11. Kongurenn af Jarmuth, Kongurenn af Lachis,

12. Kongurenn af Eglon, Kongurenn af Geser,

13. Kongurenn af Debir, Kongurenn af Geder,

14. Kongurenn af Harma, Kongurenn af Arad,

15. Kongurenn af Libna, Kongurenn af Adullam,

16. Kongurenn af Makeda, Kongurenn af BethEl,

17. Kongurenn af Thapuach, Kongurenn af Hepher,

18. Kongurenn af Aphek, Kongurenn af Lasaron,

19. Kongurenn af Madon, Kongurenn af Hazor,

20. Kongurenn af Simron Meron, Kongurenn af Achsaph,

21. Kongurenn af Taenach, Kongurenn af Megiddo,

22. Kongurenn af Kedes, Kongurenn af Jachneam, hioa Carmel,

23. Kongurenn af Naphot Dor, Kongurinn af Gilgal, sem var Kongur Heidingianna,

24. Kongurenn af Tirza, þad eru eirn og Þriatiu Kongar.

## XIII. Capitule.

Josua skipter Canaans Lande med Hoalf, Tijundu Ættkvijsl Israels.

Sem Josua var gamall, og miog vid Alldur, þa sagde DROTTinn til hans, Þu ert nu gamall, og vel alldradur, enn miog miked er epter af Landenu ad vinna,

2. Sem

2. Sem er, allt Philistanna Land, og allt Gessuri,

3. Fra Sihor, sem fellur fram hia Egyptalande, til Ekrons Landamerkia, moot Nordre, sem tilreiknast þeim Cananitum, þeir Fimm Hofdingiar Philistinorum, sem er, Gasitar, Asdoditar, Ascalonitar, Gethitar, Ekronitar, og þeir Avitar.

4. Enn Sunnan til er allt Landed Cananitanna, og Meara, sem heyrdi til þeim Zidonium jnn til Aphek, til Amoritanna Landamerkia.

5. Og þar til Land þeirra Giblita, og allt Libanon mot Austre, fra BaalGad, nedan upp ad Fiallenu Hermon, jnn til komed er til Hamath.

6. Aller þeir sem bwa a Fiollunum, fra Libanon, og allt ad þvi varma Vatne, og aller Sidoniar, Eg vil wtdrijfa þa fyrer Israelis Bornum, enn þu legg a Hlute, og skipt þeim a millum Israelis Barna, so sem Eg baud þier.

7. So skipt nu þessu Lande til Erfdar a millum þeirra Niju Kinkvijsla, og a millum hoalfrar Manasse Ættar,

8. Þvi þeir Rubenitar og Gadditar hafa medteked þeirra Part, med þeim ødrum hoalfum Kinþætte af Manasse, sem Moses gaf þeim hinumeigenn Jordanar, jmote Austre, lijka sem Moses Herrans Þienare gaf þeim,

9. Fra Aroer, sem liggur hia Arnons Vatns-Bockum, og fra þeim Stad midt j Vatnenu, og alla Landeign Medba allt til Dibon,

10. Og allar Borger Sihons, Amorita Kongs, sem sat j Hesbon, jnn til Landamerkia Ammons Barna.

11. Þar til med Gilead og Gesur, og Maachathi Landamerke, og allt Fialled Hermon, og so allt Basan, jnn til Salcha.

12. Allt Rijke Ogs j Basan, sem stiornade j Astaroth, og j Edrei, sem nu var enn epter af Risunum, og Moses slo þa, og j burtdreif þa.

13. Enn Israels Born wtrymdu ecke þa Gessurita, og Maachathita, helldur þa binggu þeir Gessur og Maachath a medal Israels Barna, allt til þessa Dags.

14. Enn Ættkvijsl Levitanna gaf hann ongvann Arf, þviad DROTTins Israels GUds Foorner eru þeirra Arfleifd, so sem hann sagde til þeirra.

15. So gaf Moses Rubens Barna Kinþætte, epter þeirra Ættkvijslum,

16. So ad þeirra Landamerke skylldu vera fra Aroer, sem liggur vid Fliots Arnons backa, og þann stad midt j Vatnenu, med øllum slettu Vollum jnn til Medba.

17. Hesbon, og alla hennar stade, sem liggia uppa sliettlendenu Dibon, BamothBaal, og BethBaalMeon,

18. Jahza, KedemothMephaoth,

19. Kiriathaim, Sibma, ZerethSahar a Fiollum Dalsins,

20. Og BetPeor, Lækena hia Pisga, og BethJesimoth,

21. Og alla stade a þeirre Sliettu. Og allt Rijke Sihon, þess Amorita Kongs, sem sat j Hesbon, sem Moses slo, med þeim Hofdingium af Madian, Evi, Rekem, Zur, Hur og Reba, Kongs Sihons yppurstu Menn, sem bigggu j Landenu,

22. Og Bileam, Spaamann, Beor Son, sem Israels Born slogu j Hel med Sverde, med þeim ødrum sem slegner voru.

23. Og Jordan var Rubens Barna Landamerke. Og þetta er Rubens Barna Arfur, a millum þeirra Kinþaatta, Landa og Þorpa.

24. Moses gaf Gads Barna Kinþætte, a medal þeira Ættar,

25. Ad þeirra Landamerke være Jaeser og allar Borger j Gilead, og hoalft Landed Ammons Barna, allt til Aroer, sem liggur j mot Rabbah.

26. Og fra Hesbon, allt til Ramath Mizpe, og Bethonim, og fra Mahanaim, allt til Debir Landamerkia.

27. Enn j Dalnum Betharam Beth

Nimra, Suchot og Zaphon, sem epter var af Sihons Kongs Rijke af Hesbon, ad Jordan var Landamerke, jnn til Cinnereth Sioar enda, hinumeigenn Jordanar moot Austre.

28. Petta er Gads Barna Arfleifd, j þeirra Ættum, Stodum og Þorpum.

29. Þeim hvalfa Kinþætte Manasse Barna gaf Moses epter þeirra Ættum,

30. Ad þeirra Landamerke voru fra Mahanaim, allt Basan, og allt Kongs Ogs Rijke af Basan, og aller Jairs Stader, sem liggia j Basan, sem eru Sextiju Borger,

31. Og hvalfpart af Gilead, Astharoth, Edrei, Rijkis Ogs Kongs stade af Basan gaf hann Bornum Machirs, sonar Manasse, Pad er helmingurenn af Machirs Bornum epter þeirra Ætt.

32. Petta er þad sem Moses vtskipte a Moabs Vollum, hinumeigenn Jordanar, Austur fra Jericho.

33. Enn Moses gaf Levi Kinkvijsl øngvann Arf, Þvi DROTTinn Jsraels Gud er þeirra Arfur, sem hann sagde til þeirra.

# XIV. Capitule.

Calebs Arfur.

Enn þetta er þad sem Jsraels Born hafa jnnteked j Canaans Lande, þad sem Eleasar Prestur, og Josua, Son Nun, og þeir Ædstu Fedur, a medal Jsraelis Barna Ættkvijsla, vtskiptu a millum þeirra.

2. Og þeir * skiptu þvi med hlutfalle a millum þeirra, so sem DROTTinn baud fyrer Mosen, ad giefa þeirre hvalfre tijundu Ættkvijsl. * Giorn: B: Post: 13, 19.

3. Þvi Moses hafde giefed þeim tveimur, og þeirre hvalfu Ættkvijslenne, Erfda hluta hinumeigenn Jordanar, Enn hann gaf Levitunum ongvann Arf med þeim,

4. Þviad þad voru tvær Ættkvijsler, af Josephs Bornum, sem var Manasse og Ephraim, þvi gaafu þeir Levitunum ongvann Part j Landenu, utann Borgernar, ad bwa j, og Forstade handa þeirra Gotse og Fienade.

5. Sem DRottinn baud Mose, so giordu Jsraels Born, og skiptu Landenu.

6. Pa geingu Juda Born framm til Josua j Gilgal, og Caleb, Son Jephunne, Kenisiter, sagde til hans, Þu veitst hvad DROTTinn sagde til Mosen Guds Manns, vegna þijn og mijn, j Kades Barnea.

7. Eg var Fiorutijge Aara gamall þa Moses DRottins Pienare vtsende mig af Kades Barnea, ad niosna um Landed, og eg sagde honum svar aptur epter minne Samvitsku,

8. Enn mijner Brædur, sem geingu upp med mier, toldu ædru j Hiortu Folksins, enn eg filgda DROTTne mijnum Gude trulega.

9. Pa svoor Moses þann sama Dag, og sagde, Pad Land sem þu gieckst a med þijnum Footum, þad skal vera þijn og þinna Barna Erfd æfinlega, þvi þu epterfilgder mijnum DROTTne Gude trulega.

10. Og sioa nu, DROTTinn hefur lioted mig lifa sem hann sagde. Pad eru Fimm og Fiorutijge Aar sijdann, ad DROTTinn sagde þetta til Mosen, þa Jsrael gieck j Eydemorkenne. Og sioa nu, eg er j Dag Fimm og attatijge Aara gamall,

11. Og eg em enn a þessum Deige so hraustur sem eg var a þeim Deige, þa Moses utsende mig, Eins lika og sem minn Kraptur var þa, so er hann enn nu til ad strijda, og vt og jnn ad ganga.

12. Þar fyrer gief mier nu þessa Fiallbyggd, sem DROTTinn talade um a þeim Deige, þvi þu heyrder a þeim sama Deige, Ad þeir Enakim bwa þar uppa, og eru storer og sterker Stader, Ef ad DROTTinn vill vera med mier, so eg meige utdrijfa þa, so sem DROTTinn hefur sagt.

13. Pa blessade Josua hann, og gaf so Caleb, Syne Jephunne, Hebron til Erfdaparts.

14. Þess vegna vard Hebron eign Calebs, Sonar Jephunne Kenisita, allt til þessa Dags,

Dags, þvi hann epterfilgde DRottne Jsraels Gude, trulegana.

15. Enn Hebron kalladest fyrr meir Kiriath Arba, sem var eirn mikell Madur a millum Enakim, og Landed liet af Bardogum.

## XV. Capitule.

Landamerke og Borger Judæ Ættkvijslar.

Hlutskipte Juda Barna Ættkvijslar, a medal þeirra Ættar, var Edoms Landamerke, til þeirrar Eydemerkur Zin, j Sudur, og til endans a þvi sydra Lande,

2. So ad þeirra Landamerke j Sudur voru fra enda þess Sallta Hafs, þad er fra þeirre Tungu sem geingur j Sudurætt.

3. Og geingur vt þar fra upp j moote Akrabbim, og geingur j gegnum Zin, og geingur sunnan ad, upp aptur mot Kades Barnea, og geingur j giegnum Hezron, og geingur upp ad Adar, og beyger sig j kring Karkaa.

4. Og geingur j giegnum Azmon, og kiemur vt til þess Lækiar Egyptalands, so ad Sioreun er ender þeirra Landamerkia, þad sieu ydar Landamerke moot Sudre.

5. Enn ydar Landamerke j Austur, er fra þvi Sallta Hafe, og til Jordanar Enda. Landamerke j Nordur, er fra Hafsins Tungu, sem er upp vid Sijduna a Jordan,

6. Og geingur upp til Beth-Hagla, og vijkur sier fra Nordre til BethAraba, og kiemur sijdan upp til Steinsins Bohems, Rubens Sonar,

7. Og geingur upp fra Achors Dal til Debir, og fra þeirre nyrdre Sijdu mot Gilgal, sem liggur þvert yfer til Adumim, upp ad, Sudur epter hiaa Vatnenu. Sijdan geingur þad til Vatnsens EnSemes, og kemur vt ad þeim Brunne Rogel.

8. So geingur þad upp til Dalsins Sonar Hinnam, hiaa Sijdu þeirra Jebusita, sem bwa j Sudur, þad er Jerusalem, og liggur þadann uppa Tindana Fiallsins, sem liggur þvert fra Hinnams Dal j Vestur, og tekur jnn til Raphaims Dals, j mot Nordre.

9. Þar epter kiemur þad fra somu Fialls tindum, til Nephthoah Vatns Brunns, og kiemur vt til Stadanna Fiallsins Ephron, og beyger sig til Baala, þad er KiriathJearim.

10. Og geingur um kring fra Baala, mot Vestre, allt til Fiallsins Seir, og geingur vt med Jearim Fialls Sijdu, fra Nordre, þad er Chessalon, og kiemur þar fra ofann til BethSemes, og geingur j gegnum Thimna.

11. Og hleypur vt hiaa Ekron Sijdu, moot Nordre, og beyger til Sichron, og geingur yfer Baala Fiall, og kiemur vt til Jabneel, so ad Sioreun er hennar Ende. Enn þad Stoora Haf er Landamerke vestur fra.

12. Þesse eru Juda Barna Landamerke, riett umkring, j þeirra Ættum.

13. Calebs, Sonar Jephunne, partur var honum giefenn a medal Juda Barna, sem DROTTinn baud Josua, sem var Kiriath Arba Fodurs Enak, þad er Hebron.

14. Og Caleb vtdreif þadann þa þria Syne Enak, Sesai, Ahiman, og Thalmai, fædda af Enak.

15. Og for þar fra upp til þeirra sem biuggu j Debir, Enn Debir hiet j Fordum tijd KiriathSepher.

16. Og Caleb sagde, Hvor sem kann ad slaa og vinna KiriathSepher, þeim vil eg giefa mijna Dotter Achsa til Eigenn Kvinnu.

17. So vann Athniel, Son Kenas, sem var Brodurs Son Calebs, Stadenn, Og hann gaf honum sijna Dotter Achsa til Eigennkvinnu.

18. Og þad skiede, þa er hun kom heim, var henne raadlagt, ad hun skyllde beidast eins Akurlendis af sijnum Fodur, og hun fiell nidur af Asnanum. Þa sagde Caleb til hennar, Hvad skadar þig?

19. Hun sagde, Gief mier eina Blessan, þvi þu gafst mier eitt Land j Sudur ætt, Gief mier og so Vatns Uppsprettur Þa gaf hann henne Uppsprettur ofann og nedan.

20. Þetta er Erfda partur Juda Barna Ættkvijslar a medal þeirra Ættar.

21. Og þessar voru Borger Barna Juda Ættkvijslar, fra þeim einum Enda og til annars, vid Edomita Landamerke, j Sudur ætt, Kaphzeel, Eder, Jagur,
22. Kina, Dimmona, AdAda,
23. Kedes, Hazor, Jthnan,
24. Siph, Telem, Bealoth,
25. HazorHadatha, KiriothHetzron, þad er Hassor,
26. Amam, Sema, Molada,
27. HazarGadda, Hesmon, BethPaleth,
28. HazarSual, BeerSeba, BisiothJa.
29. Baela, Jim, Azem,
30. Eltolad, Chesil, Harma,
31. Ziklag, Madmanna, SanSanna,
32. Lebaoth, Silhim, Ain, Rimon, Þetta eru Niju og Tuttugu Borger med þeirra Þorpum.
33. Enn j Dallendenu var Esthaol, Zarea, Asna,
34. Sanoah, EnGanim, Tapuah, Enam,
35. Jarmuth, Adullam, Socho, Aseka,
36. Saraim, Adithaim, Gedera, Giderothaim, Þesser eru Fiortan Stader, og þeirra Þorp.
37. Zenan, Hadasa, MigdalGad,
38. Dileam, Mizpe, Jaktiel,
39. Lachis, Bazekath, Eglon,
40. Chabon, Lahmam, Cithlis,
41. Gederoth, BethDagon, Naema, Makeda, Þetta eru Sextan Borger, og þeirra Þorp.
42. Libna, Ether, Asan,
43. Jephtha, Asna, Nezib,
44. Kegila, Achsib, Maresa, Þetta eru Niju Borger, og þeirra Þorp.
45. Ekron med hennar Dætrum og Þorpum.
46. Fra Ekron, og til Hassins, allt þad sem nær til Asdod, og hennar Þorp,
47. Asdod med hennar Dætrum og Þorpum. Gasa med hennar Dætrum og Þorpum, allt til Vatnsins Egyptalands, og þad mikla Haf er hans Landamerke.
48. Enn a Fiallbyggdum vár Samir, Jathir, Socho,
49. Danna, KiriathSanna, þad er Debir,
50. Anab, Esthemo, Anim,
51. Gosen, Holon, Gilo, Þad eru Ellefu Stader og þeirra Þorp,
52. Arab, Duma, Esean,
53. Janum, BethThapuah, Apheka,
54. Humta, KiriathArba, þad er Hebron, Zior, Þetta eru Niju Borger og þeirra Þorp.
55. Maon, Carmel, Siph, Juta,
56. Jesreel, Jakdean, Sanoah,
57. Kain, Gibea, Thimna, Þetta eru Tiju Borger, og þeirra Þorp.
58. Halhul, Bethzur, Gedor,
59. Maarath, BethAnoth, Eltekon, Þetta eru Sex Borger, og þeirra Þorp,
60. KiriathBaal, þad er KiriathJearim, Harabba, Tvær Borger, og þeirra Þorp.
61. Enn j Eydemorku voru BethAraba, Middin, Sechacha,
62. Nibsan, og sa Salltstadurenn, og Engeddi, Þetta eru Sex Borger, og þeirra Þorp.
63. Enn þeir Jebusitar biuggu j Jerusalem, og Juda Børn gátu ecke vot drifed þa. So voru þeir Jebusitar * j Jerusalem, med Juda Børnum, allt til þessa Dags.

* (Jebusitar) David utdreif þa sijdan. 2 Sam. 5/7.

## XVI. Capitule.

Landamerke og Borger Ephraims Ættkvijslar.

Hlutfall Barna Josephs var fra Jordan j mot Jericho, allt til þess Vatns sem liggur j Austur til Jericho, og su Eydemørk sem geingur upp fra Jericho, j gegnum Fiallsbyggder BethEl,
2. Og kiemur fra BethEl til Lus, og geingur j gegnum Landamerke ArchiAtharoth.
3. Og geingur so þar fra nidur epter, til Vesturs, til Japhleti Landamerkia, allt til

nedra

nedra Beth-Horon Landamerkia, og inn til Gaſer, og endaſt vid Hafed,

4. Þetta toku Joſephs Born, Manaſſe og Ephraim, j Arf-hluta.

5. Ephraims Barna Landamerke a medal þeirra Ættleggs, a þeirra Erfda parte til Auſturs, var Atharoth Adar, allt til hinnar efre Beth-Horon,

6. Og geingur vt j Veſtur fra Michmethath, ſem liggur j Nordur, og þadann bugar þad ſig aptur j Auſtur, til þeſs Stadar Thaenath Silo, og geingur þar j gegn, Auſtur epter til Janoha,

7. Og kiemur nidur aptur fra Janoha til Atharoth, og Naaratha, og hleypur til Jericho, og geingur vt til Jordan,

8. Og geingur fra Tapuah, og Veſtur til Nahal Kana, og endaſt vid Sio. Þetta er Arfhlute Ephraims Barna Kinkvijſlar, a medal þeirra Ættleggs,

9. Og allar Ephraims Landamerkia Borger, med þeirra Þorpum, lau til ſamans vid Manaſſe Barna Erfda Part.

10. Og þeir rymdu ecke vt þa Cananita, ſem biuggu j Gaſer, So voru Cananitar medal Ephraim allt til þeſſa Dags, og voru Skattgillder.

## XVII. Capitule.

Landamerke og Borger Hᴂlfrar Manaſſis Ættkvijſlar.

Og Hlutfalled fiell Manaſſe Ættkvijſl, þvi hann er Joſephs Firſte Son, og hlotnadeſt Machir, Firſta Syne Manaſſe, Fodur Gilead, þvi hann var mikell Bardaga Madur, þar fyrer fieck hann Gilead og Baſan,

2. Þetta hlotnadeſt og þeim ødrum Manaſſe Bornum a medal þeirra Ættar, ſem voru Born Abieſer, Born Heleks, Born Aſriels, Born Sechems, Born Hephers, og Born Semida, þeſſe eru Born Manaſſe, Joſephs Sonar, Karlkins j þeirra Ætt.

3. Enn Zelaphead, Son Hephers, Sonar Gilead, Sonar Machir, Sonar Manaſſe, hafde øngva Syne, helldur Dætur, og þeſſe eru þeirra Nøfn, Mahala, Noa, Hagla, Milca, Thirza.

4. Og þær geingu til Eleaſar Kiennemanns, og til Joſua, Sonar Nuns, og til þeirra Ypurſtu og ſøgdu, DROTTinn baud Moſe, ad hann ſkyllde giefa oſs Arfleifd a medal vorra Brædra. Og þeim var giefinn Erfdahlute a medal ſinna Fødur brædra, epter DRottins Bifalningu.

5. Og þar hlotnuduſt Tiju (Mæle) vader Manaſſe, fyrer utann Gilead Land og Baſan, ſem liggur a hina Sijdu Jordanar.

6. Þviad Manaſſe Dætur feingu Arfhluta a millum hans Sona, og þau onnur Manaſſe Born feingu þad Land Gilead.

7. Og Manaſſe Landamerke voru fra Aſſer til Michmethath, ſem liggur fyrer Sechem, og geingur vt upp a hægre Sijdu, til þeirra j En Tapuah,

8. Þviad Manaſſe fieck Tapuah Land, og Manaſſe Landamerke voru jnn til Ephraims Barna.

9. Sijdann ganga þau nidur j Sudur, til Nahal Kana, ad Vatns Stødonum, ſem heyra Ephraim til, a millum Manaſſe Stada. Enn fra Nordre eru Manaſſe Landamerke hia Lækiunum, og endaſt vid Sioinn.

10. Ephraim Eign er j Sudur, og Manaſſe j Nordur, og Siorenn er þeirra Landamerke, Og ſkiota ſier til Aſſer, a Nordur Sijdu, Og a þa Eyſtre Sijdu, til Jſaſchar.

11. So hafde nu Manaſſe a medal Jſaſchar og Aſſer, Beth Sean (Borg) med hennar Dætrum, Jeblaam, med hennar Dætrum, og þa ſem biuggu j Dor, med hennar Dætrum, og þa j En Dor, med hennar Dætrum, og þa j Taanach, med hennar Dætrum, og þa j Megiddo, med hennar Dætrum, og þridie Partur af Napheth,

12. Og Manaſſe Born gaatu ecke jnnteked þeſſar Borger, helldur toku Cananitar ad bwa j þvi ſama Lande,

13. Enn þa Jſraels Born urdu megtug, þa giordu þeir þa Cananita ſkatt⸗gillda, og vtrymdu þa ecke.

14. Pa toludu Josephs Born til Josua, og ſogdu, Hvar fyrer hefur þu ecke giefed mier utann eirn Hlut, og eirn Arfhlutar Part, Enn eg er þo eitt miked Folk, epter þvi ſem DRottinn hefur ſo bleſſad mig?

15. Pa ſagde Josua til þeirra, Firſt þu ert eitt fiolmeunt Folk, þa far upp j Skooganna, og hogg þar um, j Lande Pheresitanna og Riſanna, firſt ad Ephraims Fiall er þier ofþraungt.

16. Pa ſogdu Born Josephs, Vier foaum ecke þad Fiall, þviad aller Cananitar, ſem bwa j Dallende Landſins, hafa Jarnvagna, hia hvorium BethSean, og hennar Dætur liggia, og Jezreel j Dalnum.

17. Josua ſagde til Josephs Hwſs, til Ephraim, og Manaſſe, Pu ert eitt miked Folk, og firſt þu ert ſo ſtoor, þa ſkalltu ecke hafa eirn Hlut,

18. Helldur ſkal Fialled heyra þier til, þar Skoogurenn er, hogg þu hann upp, Og þad ſkal vera ender a þijnu Hlutſkipte, þa þu hefur vtrymt þa Cananita, þeir ſem Jarn Vagna hafa, og eru megtuger.

## XVIII. Capitule.

Landamerke og Borger BenJamins Ættkvijſlar.

Og allur Almuge Jſraels Barna kom til ſamans j Silo, og upreiſtu þar Samkundu⸗Tialldbwdena, og Landed var þeim undergiefed,

2. Enn þar voru þa enn Sio Ættkvijſler Jſraels Barna, ſem þeir hofdu enn þa ecke vtſkipt þeirra Erfda Parte.

3. Og Josua ſagde til Jſraels Barna, Pvi erud þier ſo leinge Omeſſku fuller, ad þier fared ecke af ſtad, ad jnntaka Landed, þad ſem DRottinn ydra Fedra Gud gaf ydur?

4. Utvelied ydur þria Menn, af ſierhvorre Ættkvijſl, ſo eg meige ſenda þa af ſtad, ad þeir meige tilreida ſig og fara j gegnum Landed, og uppſkrifa þad epter þeirra Erfda Portum, og koma ſo til mijn aptur.

5. Skipted Landenu j Sio Parta, Juda ſkal blijfa j ſijnu Landamerke, a þa Sydre ſijdu, og Josephs Hws ſkal blijfa j ſijnu Landamerke, j moot Nordre.

6. Enn þier ſkulud upp ſkrifa þa Sio parta j Landenu, og færed mier þad hingad, ſo vil eg leggia a Hlute fyrer DRottni vorum Gude.

7. Pviad Levitarner hafa ongvann part a medal ydar, Helldur er DRottins Kiennemannsſkapur þeirra arfleifd. Gad og Ruben, og hvalfpart af Manaſſe Ætt, hafa teked ſinn Hlut, hinumeigenn Jordanar, a mot Auſtre, ſem Mòſes DROTTins Pienare gaf þeim.

8. Pa toku Mennerner ſig upp ad fara af ſtad. Og Josua bifalade þeim ad fara af ſtad, og uppſkrifa Landed, og ſagde, Fared og reiſed j gegnum Landed, og ſkrifed þad upp, og komed til mijn aptur, ſo eg meige hier j Silo kaſta ydar Hlutkeſte fyrer DRottni.

9. Sijdan foru Mennerner af ſtad, og geingu j gegnum Landed, og uppſkrifudu þad a eitt Bref, j Sio parta, epter Borgunum, og komu til Josua j Herbwdernar j Silo.

10. So kaſtade Josua Hlutkeſte millum þeirra fyrer DRottni j Silo, og vtſkipte Landenu þar a millum Jſraelis Barna, hvorium ſitt Hlutſkipte.

11. Og Hlutkeſte BenJamins Barna Ættkvijſlar fell epter þeirra Ætt, og Landamerke þeirra hlutkeſtis gieck vt a millum Barna Juda, og Josephs Barna,

12. Og þeirra Landamerke voru j Horned a mot Nordre fra Jordan, og gengu af Nordre upp hia Jericho ſijdu, og kiemur þar fra j Veſtur upp til Fiallanna, og geingur vt til Eydemerkur BethAven.

13. Og gengur þar fra til Lus upp, til ſijdu hia Lus, moot Sudre, þad er BethEl, og liggur ofann til Ataroth Adar, hia Fiallenu ſem liggur j ſudur, upp til nedra Beth Horon.

14. Sijdann

14. Sijdann beyger þad sig, og snyr sier til Hornsins j Vestur, sudur fra Fiallenu, hvørt ed liggur j moot Sudre, þvert yfer fraa BethHoron, og endast ved KiriathBaal, þad er KiriathJearim, Stadur Juda Barna, Þad er þad Vestra Hornid.

15. Enn þad Horn mot Sudre er fra Kiriath Jearim, og geingur vt j Vestur, og kiemur vt til Nephthoah Vatns Brunns.

16. Og geingur nidur til Enda Fiallsins, sem liggur þvert yfer fra Hinnam Sonar Dal, hvor ed liggur j Dal Raphaim, mot Nordre, og geingur þadan nidur jmot Sudre, midt j giegnum Hinnam Dal, vid Sijdu þeirra Jebusita, og þar fra vt til Brunns Rogel.

17. Og dregur sig fra Nordre, og kemur vt til EnSemes, og hleypur vt til Geliloth, sem liggur upp epter, þvert yfer fra Adumim, og geingur nidur til Bohens Rubens Sonar Steins,

18. Og geingur til Sijdu, framm hiaa Slettlendenu, sem liggur j Nordur, og kiemur nidur fra þeirre sliettu Mork.

19. Og geingur upp med Sijdunne hiaa BethHagla, j Nordur, og endast hiaa Tungunne þess Sallta Sioar, j Nordur, hiaa Jordanar Sijdu, j Sudur aatt, þetta er þad Sydra Landamerke.

20. Enn Jordan skal vera ender a þvi eystra (Lands) Horne. Þetta er BenJamins Barna Erfda Partur, j þeirra Landamerkium, riett umkring, medal þeirra Ættar.

21. Þessar eru Borger BenJamins Barna Kinkvijsla, a medal þeirra ættar, Jericho, BethHagla, Emek Keziz,

22. Beth Araba, Zemaraim, BethEl,

23. Avin, Hapara, Ophra,

24. Kaphar Amonai, Aphni, Gaba, þad eru Tolf Borger med þeirra Þorpum,

25. Gibeon, Rama, Beeroth,

26. Mizpe, Kaphira, Moza,

27. Rekem, Jerpeel, Thareala,

28. Zela, Eleph, og þeir Jebusitar, þad er Jerusalem, Gibeath, Kiriath, Fiortan Borger med þeirra Þorpum, þetta er BenJamins Barna Erfda Partur j þeirra Ætt.

## XIX. Capitule.

(I) Erfda hlute hinna annra Sex Ættkvijslanna, og (II) Josuæ.

I. Epter þetta fiell sa annar Hlutur Ættkvijslar Simeonis Barna, epter þeirra ætt, og þeirra Erfdahlute var medal Erfdahluta Juda Barna,

2. Og þeir feingu til Erfdar, BerSeba, Seba, Molada,

3. HazarSual, Bala, Azem,

4. ElTholad, Bethul, Harma,

5. Ziklag, BethMarcaboth, HazarSussa,

6. BethLebaoth, Saruhen, þad eru Þrettan Borger, og þeirra Þorp.

7. Ain, Rimon, Ether, Asan, þad eru Fiorar Borger, og þeirra Þorp.

8. Þar til øll þau Þorp sem liggia umkring þessar Borger, jnn til BaalathBeerRamath, mot Sudre. Þetta er Erfda Partur Simeons Barna Ættkvijslar j þeirra Ættum.

9. Þviad Simeons Barna Erfda hlute er a millum Juda Barna Parts, þviad Juda Barna Erfda Hlute var þeim ofstor, þar fyrer erfdu Born Simeons a medal þeirra Erfdahlutar.

10. Sa hinn Þridie Hlutur fiell Sebulons Bornum, epter þeirra Ættum, og Landamerke þeirra Erfda Parts var til Sarid,

11. Og geingur upp j Vestur til Mareala, og tekur jnn til Dabaseth, og tekur til þess Lækiar sem hleypur til Jakneam.

12. Og snyr sier fra Sarid mot Austre, jnn til KislothThabor Landamerkia, og hleypur vt til Dabrath, og nær upp til Japhia.

13. Og þar fra j Austur, j gegnum Githa, Hepher, Itha, Kazin, og kiemur vt jmot RimonMithoar, og Nea,

14. Og geingur Nordann j kring til Nathon, og endest j Jephthah Els Dal,

15. Katath, Nahalal, Simron, Jideala, og BethLehem, þad eru Tolf Stader med þeirra Þorpum,

16. Þetta er Sebulons Barna Erfda Partur j þeirra Ættum, þad eru þeirra Stader og Þorp.

17. Hinn Fiorde Hlutur fiell Isaschars Bornum, epter þeirra Ættum,

18. Og þeirra Landamerke var Jesreel, Chesulloth, Sunnem,

19. Hapharaim, Sion, Anaharath,

20. Rabith, Kiseon, Abez,

21. Remeth, Engannem, Enhada, BethPazez,

22. Og tekur allt til Thabor, SahaZima, BethSemes, og hennar Ender er hiaa Jordan, Sextan Stader, og þeirra Þorp,

23. Þetta er Isaschars Barna Ættkvijslar Erfda Partur, j þeirra ættum, Stodum og Þorpum.

24. Hinn Fimmte Hlutur fiell Assers Bornum, epter þeirra Ættum,

25. Og þeirra Landamerke var Helkath, Hali, Beten, Achsaph,

26. AlaMelech, Amead, Miseal, og tekur wt til Carmel, hiaa Hafenu, og til Sihor Libnath,

27. Og snyr sier j Austur mot BethDagon, og tekur ad Sebulon, og til Jephthah Els Dals mot Nordre. BethEmech, Negiel, og gengur ut til Chabul, a þa Vinstre Sidu,

28. Ebron, Rehob, Hamon, Kana, til þeirrar storu Zidon.

29. Og snyr sier upp mot Rama, til þess fasta Stadar Zor, og snyr sier til Hossa, og endast vid Hafed, epter þeim mæler til Achsib,

30. Uma, Aphek, Rehob, Tvær og Tuttugu Borger, og þeirra Þorp,

31. Og þetta er Assers Barna Erfda hlutur, j þeirra Ættum, Borgum, og Þorpum.

32. Enn Siotte Hlutur fiell Nephthali Bornum, j þeirra Ættum.

33. Og þeirra Landamerke voru fra Heleph, Elon, giegnum Zaenannim, Adami Nekeb, JabneEl, jnn til Lakum, og endast hiaa Jordan.

34. Og snyr sier mot Vestre, til Asnoth Thabor, og gengur þar fra, wt til Hukok, og tekur j Sudur til Sebulon, og til Asser moot Vestre, og til Juda, hiaa Jordan mot Austre,

35. Og hefur fasta stade, Zidim, Zer, Hamath, Rakath, Chinnareth,

36. Adama, Rama, Hazor,

37. Kedes, Edrei, EnHazor,

38. Jereon, MigdalEl, Harem, Beth Anath, BethSames, nijtian Stader, og þeirra Þorp,

39. Þetta er Nephthali Barna Ættkvijslar Erfda Partur, j þeirra Ættum, Stodum, og Þorpum.

40. Hinn Siounde Hlutur fiell Ættkvijsl Dans Barna, epter þeirra Ættum,

41. Og þeirra Arfleifdar Landamerke var, Zareah, Esthaol, Irsames,

42. Saelabbim, Aialon, Jethla,

43. Elon, Thimnatha, Ekron,

44. Eltheke, Gibethon, Baalath,

45. Jehud, BneBarak, GathRimon,

46. MeJarkon, Rakon, med þeim Landamerkium mot Japho, og þar endast Landamerke Barna Dan,

47. Og Dans Born fooru upp ad strijda jmot Lesem, og unnu, og slou hana med Sverds Eggium, og inntooku Borgena, og biuggu j henne, og kolludu hana Dan, epter þeirra Fodurs Nafne,

48. Og þetta er Erfdahlute Dans Barna Kinkvijslar, j þeirra Ættum, Stodum, og Þorpum.

II. 49. Enn sem þeir hofdu wtskipt Landenu, med sijnum Ummerkium, þa gaafu Israels Born Josua, Syne Nun, eirn Erfda Hlut a medal þeirra.

50. Og

50. Og þeir gafu honum þann Stad epter DRottins Bifalningu, sem hann gyrnteſt, sem var Thimnath Serah a Ephraim Fialle. Þar biggde hann Stadenn, og bioo þar.

51. Þesser eru þeir Erfdahluter sem Eleasar Preſtur, og Josua, Son Nun, og þeir Ædſtu Fedur a medal Ættkvijſlanna ſkiptu med Hlutfalle a medal Jſraels Barna, j Silo, fyrer DROttni, fyrer Samkundu-Tialldbwdarennar Dyrum, og ſo fullkomnuduſt þeſſe Landſins Skipte.

## XX. Capitule.

Um þaa Sex Frelſes-Stade.

DROTTinn talade vid Josua, og ſagde,
2. Seig þu til Jſraels Barna, Giefed
Frelſis-Stade a medal ydar, um hvoria Eg
talade til ydar fyrer Moſen,
3. Þangad ſem einn Mannſlagare maa
flya, ſa ſem nockurn ſlær jhel oviliande, og
ovitande, ſo þeir meige vera frij a millum
ydar fyrer Bloodhegnaranum.
4. Og ſa ſem flyr til einhvors þeirra Stada, hann ſkal ſtanda fyrer utann Stadar
Ported, og opinbera þar ſijna Søk, fyrer
Olldungunum Stadarins, ſijdan ſkulu þeir
taka hann jnn j Stadenn til ſijn, og giefa
honum Rwm, ſvo hann meige bwa hiaa
þeim.
5. Og þa Blodhegnarenn fer epter honum, þa ſkulu þeir ecke frammſelia þennann
Veganda j hans Hendur, firſt hann ſlo ſinn
Naunga jhel ovitande, og var ecke adur
hans Ovin.
6. So ſkal hann bwa j þeim ſama Stad,
þar til ad hann hefur ſtaded til Rietta fyrer
Allmwganum, þar til ſa ædſte Preſtur andaſt, ſem þa er þann ſama Tijma, epter
þad ſkal Vegandenn koma j ſinn Stad aptur, og til ſijns Hwſs, til þeſs Stadar ſem
hann adur fra flwde.
7. So helgudu þeir Kedes j Galilea, a
Fialle Nephthali, og Sechem a Fialle Ephraim, og Kiriath Arba, þad er Hebron, a
Fiallenu Juda.
8. Og hinumeigenn Jordanar, Auſtur fra
Jericho, gafu þeir Bezer j Eydemorku, a
Sliettlendenu, af Ættkvijſl Ruben, og Ramoth j Gilead, af Ættkvijſl Gad, og Golan
j Baſan, af Ættkvijſl Manaſſe.
9. Þeſſer voru þeir Stader ſem ſkickader voru
fyrer øll Jſraels Børn, og ſo fyrer þa Utlendu ſem biuggu a millum þeirra, ſo ad ſa
ſkyllde flya til einhvørs af þeim, ſem nockurn
hafde ſleiged jhel oforvarande, ſo hann ſkyllde
ecke deya, fyrer Blodhegnaranum, fyrr enn
hann hafde ſtaded fyrer Allmwganum.

## XXI. Capitule.

Koſtuleg Kiør og Frelſe Levitanna.

Þa geingu þeir ædſtu Fedur a medal Levitanna framm, til Eleaſar Preſts, og til
Josua, Sonar Nun, og til þeirra yppurſtu
Fedranna, medal Ættkvijſla Jſraels Barna,
2. Og tøludu vid þa j Silo, j Landenu
Canaan, og ſøgdu, DROTTinn baud fyrer
Moſen, ad oſs ſkylldu giefaſt Stader ad bwa
j, og þeirra Forſtader fyrer vort Kvikfie.
3. Þa gafu Jſraels Børn Levitunum af
ſijnu Arfſkipte, ſo ſem DROTTinn hafde
boded, þeſſa Stade, og þeirra Forſtade.
4. So fiell Hluturenn uppa Kahathiters
Ætt, og Børn Aarons Preſts, af Levitunum, feingu Þrettan Stade, med Hlutfalle,
af Juda Ættkvijſl, af Simeons Ættkvijſl,
og af BenJamins Ættkvijſl.
5. Enn þau ønnur Børn Kahaths, af ſømu
Ætt, feingu ad hlutfalle Tiju Stade, af Ephraims Ættkvijſl, af Ættkvijſl Dans, og af
halfre Manaſſe Ættkvijſl
6. Enn Gerſons Børn af ſømu Ætt,
feingu epter Hlutfalle, Þrettan Stade, af
Kine Jſaſchar, af Kinkvijſl Aſſer, og af
Kinkvijſl Nephthali, og af halfre Kinkvijſl
Manaſſe j Baſan.
7. Og Merari Barna Ætt fieck Tolf

 Stade,

Stade, af Ættkvijsl Ruben, af Ættkvijsl Gad, og af Ættkvijsl Sebulon.

8. Þa gaafu Jsraels Born Levitunum, epter Hlutfalle þessa Stade, og þeirra Forstade, sem DROTTinn hafde boded fyrer Mosen.

9. Af Ættkvijsl Juda barna, og af Ættkvijsl Barna Simeons, gaafu þeir þessa Stade, sem þeir nafnkienndu,

10. Aarons Bornum Kahathita Ættar, af Bornum Levi, þviad sa firste hlutur var þeirra.

11. So gaafu þeir þeim KiriathArba, sem heyrde Enaks Fodur til, þad er Hebron, a Fialle Juda, og hennar Forstade kringum hana.

12. Og þeir gaafu Caleb, Syne Jephunne, Akrana, og þau Þorp j kringum Stadenn til eignar.

13. So gaafu þeir Bornum Aarons Prests, þa Manndrapsparanna Friistade, Hebron, og hennar Forstade, Libna, og hennar Forstade,

14. Jathir, og hennar Forstade, Esthmoa, og hennar Forstade,

15. Holon, og hennar Forstade, Debir, og hennar Forstade,

16. Ain, og hennar Forstade, Juta, og hennar Forstade, BethSemes, og hennar Forstade, Niju Stade af þessum tveimur Ættkvijslum.

17. Enn þeir gaafu þeim Fiorar Borger af BenJamins Ættkvijsl, Gibeon, og hennar Forstade, Geba, og hennar Forstade,

18. Anathoth, og hennar Forstade, Almon, og hennar Forstade.

19. So ad aller Stader Barna Aarons Prests, voru þrettan med sijnum Forstodum.

20. Enn þeir adrer Kahaths barna Frændur af Levitunum, feingu ad sijnu hlutfalle Fiora Stade, af Ephraims Ættkvijsl,

21. Og þeir gaafu þeim Frelsis Stade Manslagaranna, Sechem, og hennar Forstade, a Ephraims Fialle, Geser og hennar Forstade,

22. Kibzaim, og hennar Forstade, Beth Horon, og hennar Forstade.

23. Af Ætt Dan Fiora Stade, Eltheke, og hennar Forstade, Gibthon, og hennar Forstade,

24. Aialon, og hennar Forstade, Gath Rimon, og hennar Forstade.

25. Af haalfum parte Manasse Ættkvijslar Tvo Stade, Thaenach, og hennar Forstade, GathRimon, og hennar Forstade.

26. So ad aller þeir Stader þeirrar annarar Kahaths barna Ættar voru Tiju, med þeirra Forstodum.

27. Og þeir gaafu Bornum Gerson, af Ættkvijsl Levi, Tvo Stade, af haalfum parte Manasse Ættkvijslar þann Friistadenn fyrer Mannslagarana, Golan j Basan, og hennar Forstade, Besthera, og hennar Forstade.

28. Af Jsaschar Ættkvijsl Fiora Stade, Kision, og hennar Forstade, Dabrath, og hennar Forstade.

29. Jarmuth, og hennar Forstade, En Gannim, og hennar Forstade.

30. Af Ættkvijsl Asser fiora Stade, Miseal, og hennar Forstade, Abdon, og hennar Forstade,

31. Helkath, og hennar Forstade, Rehob og hennar Forstade.

32. Af Ættkvijsl Nephthali Þria Stade, þann Frelsis Stad Kedes, fyrer Manndrapsparana, j Galilea, og hennar Forstade, HamothDor, og hennar Forstade, Karthan, og hennar Forstade.

33. So ad aller þeir Gersonita Ættar Stader voru þrettan, med sijnum Forstodum.

34. Enn þeir adrer Levitar, sem voru af Ætt Merari Barna, þeim voru giefner fiorer Stader, af Ættkvijsl Sebulon, Jakneam, og hennar Forstader, Kartha, og hennar Forstader,

35. Dimna, og hennar Forstader, Nahalal, og hennar Forstader,

36. Af Ættkvijsl Ruben fiorer Stader, Bezer, og hennar Forstader, Jahza, og hennar Forstader,

37. Kede=

37. Kedemoth, og hennar Forstader, Mephaath, og hennar Forstader,

38. Af Kinkvijsl Gad Fiorer Stader, sa Frijstadur Manslagarauna, Ramoth j Gilead, og hennar Forstader, Mahanaim, og hennar Forstader,

39. Hesbon, og hennar Forstader, Jaeser med hennar Forstødum.

40. So ad aller Merari Barna Stader, a millum þeirra Ættar, af þeim ødrum Levitum, voru Tolf, sem þeir feingu epter þeirra Hlutfalle.

41. Aller Levitanna Stader, a medal Israels Barna Arfs, voru aatta og Fiorutijge med sijnum Forstødum,

42. Og hvør af þessum Stødum hafde sinn Forstad umhverfis sig, so eirn sem annar.

43. So gaf DROTTinn Israel allt þad Land sem hann hafde svared ad giefa þeirra Forfedrum, og þeir eignudust þad, og biggdu þar.

44. Og DROTTinn gaf þeim hvijld allt um kring fyrer øllum, so sem hann soor þeirra Forfedrum, og eingenn af þeirra Ovinum gat staded þeim j mot, helldur gaf hann alla þeirra Ovine j þeirra Hendur.

45. Og þar brast ecke neitt af øllu þvi gooda sem DROTTinn hafde lofad Israels Huse, þad kom (framm) allt samann.

## XXII. Capitule.

Hoalfþridia Ættkvijsl af Israel (I) snyr aptur til sijns Erfda Hluta, og (II) bygger upp Eitt Alltare hia Jordan.

I. Þa kallade Josua þa Rubenita, og þa Gaddita, og Hoalfpartinn af Manasse Ættkvijsl,

2. Og sagde til þeirra, Þier hafed hallded allt þad sem Moses Guds Þienare baud ydur, og hafed hlydt minne Raustu, j øllu þvi sem eg hefe boded ydur.

3. Þier hafed og ecke yfergiefed ydar Bræd ur i langann tijma, allt til þessa Dags, og hafed halldeð ydur epter DROTTins ydars Guds bode.

4. Og nu sokum þess, ad DROTTinn ydar Gud hefur giefed ydrum Brædrum hvijld, sem hann þeim lofade, Þa snuid ydur nu aptur, og ferdist af stad til ydra Tialldbuda, j ydar Erfda Land, sem Mosis Þienare DROTTins gaf ydur, hinumeigenn Jordanar.

5. Enn alleinasta hallded þad med (allre) giætne, ad þier giored epter þeim Bodordum og Løgum sem Moses DROTTins Þienare baud ydur, Ad þier elsked DROTTinn ydar Gud, og ganged a øllum hans Vegum, og geymed hans Bodord, og hallded ydur ad hønum, og þioned hønum af øllu Hiarta, og af allre Saalu.

6. So blessade Josua þa, og liet þa fara, og þeir foru j burt til sinna Tialldbuda.

7. Moses hafde giefed hoalfsum Kinþætte Manasse j Basan, þeim ødrum Helminge gaf Josua þessumeigenn Jordanar, j Vestur, a medal þeirra Brædra. Og þa hann liet þa fara til sinna Tialldbuda, og hafde blessad þa,

8. Sagde hann til þeirra, Þier komed heim aptur til ydra Tialldbuda med miklum Audæfum, med miøg miked Fie, Silfur, Gull, Kopar, Jaarn, og Klæde, So utskipted nu þessu hinu sama ydar Ovina Herfange med ydrum Brædrum.

9. So sneru þeir Rubenitar, Gadditar, og hoalf Manasse Ættkvijsl aptur, og geingu fra Israels Børnum ut af Silo, hvør ad liggur j Canaans Lande, ad ferdast j Land Gilead, til sijns Erfdalands, hvort þeir høfdu feinged ad Erfd, epter DROTTins bifalningu fyrer Mosen.

II. 10. Enn þa þeir komu til Landamerkianna hia Jordan, sem liggia j Canaans Lande, þa biggdu þeir enu sømu Rubenitar, Gadditar, og hoalf Manasse Ættkvijsl, þar hia Jordan eitt miked prydelegt Alltare.

11. Enn þa Israels Børn þad heyrdu, søgdu þeir, Sioed, Rubens børn, Gads børn, og hoalf Manasse Ættkvijsl, hafa biggt eitt Alltare, gagnvart Canaans Lande, hia

þeim Landamerkium vid Jordan, a þessa sijdu Israels Barna.

12. Pa sofnudust þeir saman j Silo, med ollum Almuganum, so ad þeir fære upp j mote þeim med Her.

13. Og sendu til þeirra, j Gilead Land, Phinees, son Eleasar Prests.

14. Og med honum Tiju af þeim ædstu Hofdingium af þeirra Fedra Hwsum, eirn af hvorre Israels Ættkvijsl.

15. Og sem þeir komu til þeirra j Gilead Land, toludu þeir til þeirra, og sogdu,

16. Allur DROTTins Almwge lætur so seigia ydur. Hvornenn hafed þier so syndgast j mote Israels Gude? Ad þier snerud ydur j Dag fra DROTTne, med þvi, ad þier biggdud ydur eitt Alltare, so þier falled fra DROTTni,

17. Er Peors Misgiord oss ofliett? af hvorre vier erum ecke enn hreinsader a þessum Deige, og þar kom ein Plaaga medal Drottins Almwga,

18. Og þier snued ydur j Dag fra Veige DROTTins, og erud fallner a þessum Deige fra DROTTni, So hann j Dag, edur a Morgun reidest uppa allann Israels Sofnud.

19. Ef ad ydur þyker, ad ydart Erfda Land sie ohreint, þa komed yfer j þetta Land sem DROTTinn hefur, þar sem DRottins Tialldbwd stendur, og taked ydarn Erfdar part a medal vor, og falled hvorke fra Drottni, nie fra oss, so ad þier bigged ydur Alltare, annad helldur enn DROTTins vors Guds Alltare.

20. Syndgadest ecke Achan, son Serachs, a þvi Bannfærda, og þar kom Reide yfer allann Israels Sofnud, so hann fyrerfoorst ecke alleirn fyrer sinn Misgiorning.

21. Pa svorudu Born Rubens, og Born Gads, og hoalf Manasse Kinkvijsl, og sogdu til Hofdanna og Hofdingia Israel,

22. DROttinn sa Sterke Gud, DRottinn sa Sterke Gud veit þad, So veit þad Israel, Ef follum vier fra, eda misgiorum vier j mot DROTTni, þa hialpe hann oss ecke a þessum Deige,

23. Ef vier biggdum þad Alltare þar fyrer, ad vier vilium snua oss fra DROTTni, ad offra Breñeoffre, edur Matoffre, þar yfer, eda ad færa Packlætisoffur þar a fyrer DRottne, Pa votkrefie hann þess,

24. Og hofum vier ecke helldur þad giort fyrer ahuga saker þess hlutar, seigiande, Ydar Born meiga seigia til vorra Barna, j Dag, edur Morgun, Hvad hafed þier ad giora med DROTTins Israels Gud?

25. DROTTinn hefur sett Jordan til Landamerkia a medal vor og ydar, Rubens og Gads barna, þier hafed eckert Hlutskipte j DROTTne, Par med mættu ydar Born vijsa vorum Bornum fra Otta DRottins.

26. Pvi sogdum vier, Loatum oss biggia eitt Alltare, ecke til Offurs, eige helldur til Brennefoorna,

27. Helldur ad þad sie eirn Vitnisburdur a millum ydar og vor, og vorra Epterkomenda, ad vier meigum giora DROTTne Pionustu fyrer honum, med vorum Brennefoornum, Packar Offre, og odrum Offrum, So ad ydar Born þurfe ecke ad seigia til vorra Barna, j Dag, eda a Morgun, Pier hafed eckert Hlutskipte j DROttni.

28. Nær þeir vilia so seigia til vor, eda til vorra Epterkomenda, j Dag, edur a Morgun, þa meiged þeir seigia, Sioaed Lijking DROTTins Alltaris, sem vorer Forfedur giordu, eige til Offurs, nie til Brennefoornar, helldur til eins Vitnisburdar a millum vor og ydar,

29. Pad sie langt fra oss, ad vier skylldum falla fra DROTTni, ad vier villdum snwa oss j Dag fra honum, og uppbiggia eitt Alltare til Brennefoornar, og til Matoffurs, og til annara Foorna, fyrer utann DROTTins vors Guds Alltare, hvort ed stendur fyrer hans Tialldbwd.

30. Enn þa Phinees Prestur, og þeir ypparstu yfer Almwganum, Hofdingiar j Israel

Jsrael, sem voru med honum, heyrdu þesse Ord, sem Børn Rubens, og Gads, og Manasse, sǫgdu, þa lijkudu þau þeim vel.

31. Og Phinees, Sonur Eleasar Prests, sagde til Ruben, Gads, og Manasse Barna, j Dag merkium vier, ad DROttinn er a medal vor, ad þier hafed ecke syndgad a moote DROTTNJ j þessum Giorninge, nu hafed þier frelsad Jsraels Børn af Hende DROttins.

32. So ferdadest Phinees, Sonur Prestsins Eleasar, og þeir Yppurstu af Lande Gilead, fra Rubens og Gads Børnum, yfer um aptur j Canaans Land, til Jsraels Barna, og sǫgdu þeim þetta.

33. Jsraels Børnum þocknadest þad vel, og losudu Gud Jsraels Barna, og sǫgdu ecke framarmeir, ad þeir villdu ferdast upp jmoote þeim med Herlid, til ad fordiarfa þad Land sem Børn Rubens og Gads biuggu i,

34. Og Børn Rubens og Gads kolludu þad Alltare, ad þad sie Vitnisburdur millum vor, ad DROTTinn er Gud.

# XXIII. Capitule.

Josua bijdur og aminner øll Jsraels Børn ad þau hallde fast vid DRottinn þeirra GUd.

Og longum Tijma þar epter, þa Drottinn hafd komed Jsrael j Kirrder fyrer øllum þeirra Ovinum allt j kring, og Josua var nu ordenn gamall, og vel Alldradur,

2. Þa kallade hann saman allann Jsrael, og þeirra Olldunga, Høfuds-Menn, Domendur, og Embættismenn, og sagde til þeirra, Eg er nu gamall, og vel vid Alldur,

3. Og þier hafed sied allt hvad DROTTinn ydar GUd hefur giort vid þetta Folk hier fyrer ydur, þviad DROTTinn ydar GUd hefur sialfur strijdt fyrer ydur.

4. Siaed, Eg hefe skipt med ydur þvi Folke sem epter er, med Hlutkeste, sierhvorre Kinkvijsl sinn Arfhluta, fra Jordan, og øllum Þiodum, sem Eg hefe wtrymt, og Vestur, allt til þess stoora Hafs.

5. Og DROTTinn ydar GUd mun wthrinda þeim fyrer ydur, og wtryma þa fra ydur, so þier jnntaked þeirra Land, so sem DROTTinn ydar GUd hefur lofad ydur.

6. So vered nu hughrauster, so ad þier hallded og giored allt þad sem skrifad stendur i Moses Logmaals Book, so þier vijked þar ei fra, hvorke til Hægre, nie til Vinstre Handar.

7. Uppa þad, ad þier komed ecke a medal þessa Folks, sem nu enn er epter hia ydur, og ad þier ecke hugsed, eda sveried vid þeirra Afguda Nafn, eige helldur þioned þeim, nie bidied til þeirra,

8. Helldur hallded ydur fast vid DROttinn ydar Gud, so sem þier hafed giort til þessa Dags.

9. So mun DROTTinn wtdrijfa stoort og megtugt Folk fyrer ydur, og eingenn hefur staded jmoote ydur, jnn til þessa Dags.

10. Einn af ydur skal ellta Þusund, þvi DROTTinn ydar GUd strijder fyrer ydur, so sem hann hefur sagt ydur.

11. Þar fyrer geymed med giætne ydar Saaler, ad þier elsked DROTTinn ydar GUd.

12. Enn ef ad þier snued ydur, og hallded ydur ad þvi Folke, sem nu epter er, og giored Hiuskap vid þad, so ad þier komed a millum þeirra, og þeir a medal ydar,

13. Þa vited, ad DROTTinn ydar Gud mun ecke framar wtryma allt þetta Folk, fyrer ydur, helldur skal þad verda ydur ad Snøru, og ad Nete, og ad Svipu a ydar Sydur, og ad Þyrnum j ydar Augu, þar til hann eydeleggur ydur, af þvi gooda Lande, sem DROTTinn ydar GUd hefur giefed ydur.

14. Siaed, eg geing j Dag j burt, so sem øll Verolldinn, og þier skulud vita af øllu Hiarta, og af allre Saalu, ad þar hefur ecke eitt Ord brugdest, af øllu þvi goodu sem DROTTinn ydar GUd hefur lofad ydur,

15. Þad er alltsamann frammkomed, og

ecke

ecke neitt avantad. Og lijka sem þier hafed feinged allt þad Goda, sem DROTTinn ydar GUd hefur lofad ydur, so mun Drottinn laata allt Vondt koma yfer ydur, þar til hann afmaaer ydur af þessu Gooda Lande, sem DROTTinn ydar GUd gaf ydur.

16. Ef þier yfertroded DROTTins ydars Guds Saattmaala, þann hann baud ydur, og fared burt og þioned annarlegum Gudum, og tilbidied þa, ad Reide DROTTins gremst yfer ydur, og fyrerkiemur ydur snarlega af þvi goda Lande, sem hann hefur giefed ydur.

## XXIV. Capitule.

(I) Josua lætur allar Ættkvijsler koma samann i Sichem; og (II) andast. (III) Josephs Bein eru jørdud j Sichem. (IV) Eleasar deyr, og er grafinn.

I. Josua safnade samann øllum Israels Kinkvijslum til Sichem, og kallade þa hina Ellstu af Israel, þa Ædstu Høfudsmenn, Domendur og Embættismenn,

2. Og sem þeir voru frammgeigner fyrer GUd, þa sagde hann til alls Folksins, DRottinn Israels GUd seiger so, Ydrer Fedur biuggu fordum Daga hinumeigenn Vatnsins, Tarah, Fader Abrahams og Nahors, og þionudu annarlegum Gudum.

3. Þa tok Eg ydar Fødur Abraham hinumeigenn Vatnsiins, og liet hann ferdast um allt Canaans Land, og jook hans Sæde,

4. Og Eg gaf hønum Isaac. Og Isaac gaf Eg Jacob, og Esau. Og Eg gaf Esau fiallbyggder Seir, ad eignast, enn Jacob og hans Børn fooru ofann j Egyptaland.

5. Þa senda Eg Mosen og Aaron, og ploagade Egyptaland, so sem Eg giorde a medal þeirra.

6. Sijdann leidda Eg ydur, og ydar Forfedur af Egyptalande, og þann Tijma sem þier komud til Hafsins, og þeir Egyptsku veittu eptersør ydar Forfedrum, med Vognum og Riddara lide, allt til þess Rauda Hafs,

7. Þa kolludu þeir til DROTTins, hann sette eitt Mirkur a mille ydar og þeirra Egyptsku, og leidde Hafed yfer þa, og hulde þa. Og ydar Augu hafa sied þad sem Eg giorde j Egyptalande, og þier biugguð j Eydemørku langa Tijma.

8. Og Eg færda ydur j Land þeirra Amorita, sem biuggu hinumeigenn Jordanar, og þa þeir strijddu jmoote ydur gaf Eg þa j ydar Hendur, so þier eignudust þeirra Land, og Eg eydelagde þa fyrer ydur.

9. Epter þad upptok sig Balak, Son Zipor, Kongur Moabita, og hiellt Bardaga vid Israel, og hann sende af Stad, og liet kalla Bileam Søn Beor, ad hann skyllde Bolva ydur.

10. Enn Eg villde ecke heyra hann, og hann blessade ydur, og Eg Frelsade ydur af hans Hondum.

11. Og þa þier geingud yfer Jordan, og komud til Jericho, þa bordust Borgarmenn Jericho jmoote ydur, þeir Amoritar, Pheresitar, Cananitar, Hethitar, Girgositar, Hevitar, og Jebusitar, enn Eg gaf þa j ydar Hendur,

12. Og Eg sende Geithame (*) fyrer ydur, þeir votreaku fyrer ydur þa Tvo Konga Amoritarum, eige fyrer þitt Sverd, eda fyrer þinn Boga,

(*) Crabrones.

13. Og Eg gaf ydur eitt Land uppa hvert þier hafed ecke erfidad, og þær Borger sem þier hafed ecke uppbiggt, so þier skylldud bwa þar j, og eta af þeim Vijngordum, og Vidsmiørs Gordum, sem þier hofdud ecke plantad.

14. So ottest nu DROTTinn, og þioned hønum trulega, og alvarlega, og laated þa Afgude fara, hvorium ad ydrer Fedur þionudu hinumeigenn Vatnsins, og j Egyptalande, og þioned DROTTni.

15. Enn þocknist ydur ecke ad þiona DROTTni, þa votvelied nu a þessum Deige, hvorium þier vilied þiona, þeim Gudum sem ydrer Fedur þionudu a hina Sijdu Vatnsins, eda Gudum þeirra Amorita,

rita, j hvorra Lande þier bwed, enn eg, og mitt Hws, vilium þiona DROTTNI.

16. Þa svarade Folked og sagde, Pad sie langt fra oss, ad vier yfergiefum DRottinn, og þionum odrum Gudum,

17. Þvi DROTTinn Vor GUd færde oss og vora Fedur af Egyptalande, af þvi Prældoms Hwse, og giorde so stoor Teakn fyrer vorum Augum, og vardveitte oss a ollum þeim Veige sem vier reistum, og a medal alls þess Folks sem vier geingum j giegnum,

18. Og hefur wthrundid ollu Amorita Folke fyrer oss, sem bio j Landenu, þar fyrer vilium vier og þiona DROTTNI, þvi hann er vor GUd.

19. Josua sagde til Folksins, Eige kunned þier ad þiona DROTTNI, þviad hann er einn Heilagur GUd, einn Vandlaatur GUd, sa ad eige hlijfer ydar Yfertrodslum og Syndum,

20. Enn ef þier yfergiefed DROTTinn, og þioned odrum Gudum, þa mun hann snwa sier, og plaaga ydur, og fyrerkoma ydur, epter þvi sem hann hefur giort ydur hid goda.

21. Folked sagde til Josua, Ecke so, helldur vilium vier þiona DROTTni.

22. Þa sagde Josua til Folksins, Þier erud Vitne yfer ydur, ad þier hafed wtvaled ydur Drottinn, honum ad þiona, þeir sogdu, Ja,

23. Þa kasted nu burt fra ydur Annarlegum Gudum, sem a millum ydar eru, og hneiged ydar Hiortu til DROTTins Israels Guds.

24. Og Folked sagde til Josua, Vier Vilium þiona DROTTni vorum GUde, og hlyda hans Roddu.

25. So giorde Josua a þeim sama Deige eitt Saattmaal vid Folked, og sette þeim fyrer Logmaal og Riettinde j Sichem.

26. Og Josua skrifade allt þetta j GUds Logmaals Bok, og tok eirn stoorann Stein, og reiste hann upp j þeim sama Stad, under eirne Eik, sem var hiaa DROTtins Helgedome,

27. Og sagde til alls Folksins, Siaaed, Þesse Steirn skal vera Vitnisburdur a millum vor, þvi hann heyrde oll DROTtins Ord, sem hann hefur talad vid oss, og hann skal vera Vitnisburdur yfer ydur, so þier skulud ecke afneita ydrum Gude.

28. So liet Josua Folked fara, hvorn til sinnar Arfleifdar.

II. 29. Og þad skiede so, epter þad þetta var skied, ad Josua, Son Nun, Þienare DROTTins, andadest,* þa hann var Hundrad og Tiju aara gamall,

* [Josua andast xxxij aarum epter Mosen, þa hann hafde unned Landed, og utskipt þvi med Folkenu.]

30. Og þeir jordudu hann j Landamerkium sijns Arfhluta, j TimnathSerah, sem liggur a Fialle Ephraim, Nordan fra Fialle Gaas.

31. Og Israel þionade DROTTni so leinge sem Josua lifde, og Olldungarner, sem leinge lifdu epter Josua, hvorier ad vissu alla DROTTins Giorninga, sem hann hafde giort vid Israel.

III. 32. Og Josephs Bein, sem Israels Born hofdu fært af Egyptalande, groofu þeir j Sichem, a þeim Akurs Parte sem Jacob keypte af Bornum Hemors, Fodur Sichem, fyrer Hundrad Silfurpeninga, og vard Erfdahlutur Josephs Barna.

IV. 33. Eleasar, Son Aaron, andadest og eirnen, og þeir jordudu hann j Gibea, sem heyrde til hans Syne Phineas, sem honum var giefenn, a Fialle Ephraim.

Ender Bookar Josua.

# Domaranna Book.

## I. Capitule.

Juda Ættkvijsl rædur fyrer Herforum epter Josua andadann.

Epter Andlaat Josua, spurdu Israels Born DROTTinn, og sogdu, Hvor a medal vor skal firstur heya Strijd a moote þeim Cananitum?

2. DROTTinn svarade, Juda skal þad heya. Sioaed, Eg hefe giefed Landed j hans Hendur.

3. Þa sagde Juda til sijns Broders Simeon, Far med mier j mitt Hlutskipte, og lꜳtum ofs beriast vid Cananitana, sijdann vil eg reisa med þier aptur j þitt Hlutskipte, Simeon foor so med honum.

4. Og sem Juda foor nu upp, þa gaf DRottinn þa Cananita, og Pheresita, j þeirra Hendur, og þeir sloou j Besek Tiju Þusund Manns.

5. Og þeir fundu Adoni Besek, j Besek, og borduſt vid hann, og sloou þa Cananita, og Pheresita.

6 Enn AdoniBesek flyde, og þeir soktu epter honum, og þa þeir nꜳdu honum, hiuggu þeir af honum hans Þumalfingur og Þumaltær, af Hondum og Footum,

7. Þa sagde AdoniBesek, Siotiju Kongar, med afhoggnum Þumaltꜳm a Hondum og Footum, tijndu upp under mijnu Borde, lijka sem eg hefe giort, so hefur GUD endurgollded mier. Og þeir fluttu hann til Jerusalem, þar andadest hann.

8. Enn Juda Born strijddu upp a Jerusalem, og unnu hana, og sloou hana med Sverds eggium, og logdu Elld j Borgena,

9. Þar epter ferdudust Juda Born ofann, til ad beriast vid þa Cananita, sem biuggu a Fiallbyggdum, og j Sudur ꜳtt, og Dolonum.

10. Og Juda for wt jmoot þeim Cananitum, sem biuggu j Hebron (enn Hebron kalladist j fyrre Tijd Kiriath Arba) og sloo Sesai, og Ahiman, og Thalmai.

11. Og hann ferdadest þadann mot þeim Innbyggiurum j Debir (enn Debir kalladest fordum Tijd, Kiriath Sepher)

12. Og Caleb sagde, Hvor sem slær og vinnur KiriathSepher, þeim skal eg giefa mijna Dotter Achsa til eigenn Kvinnu.

13. Þa vann Athniel, Sonur Kenas, Calebs yngste Broder hana, og hann gaf honum sijna Dotter Achsa til Eigennkvinnu.

14. Og þad skiede so, þa hun ferdadest heim, var henne rꜳdlagt, ad hun skyllde bidia eins Akurs af sijnum Fodur, og hun fiell af Asnanum. Caleb sagde til hennar, Hvad brestur þig?

15. Hun sagde, Gief mier eina Blessan, þviad þu hefur giefed mier eitt Sudurꜳttar Land, gief mier vokvafullt Land. Þa gaf hann henne vokvafulla Jord (bæde) ad ofann og nedan.

16. Og Born Kenita, Moses Mꜳgs, foru upp fra Palma Stadnum, med Bornum Juda, til Juda Eydemerkur, sem liggur j Sudur, mots vid Stadenn Arad, þvi þeir voru burt farner ad bwa a medal þess Folks.

17. Enn Juda ferdadest af Stad med sijnum Brodur Simeone, og þeir sloou þa Cananita j Zephat, og foreyddu þeim, og kolludu Stadenn Harma.

18. Þar til vann Juda Gaza, med þvi sem henne filgde, og Asklon, med þvi sem henne tilheyrer, og Ekron, med þvi sem henne tilheyrde.

19. Og DROTTinn var med Juda, so ad hann inntok Fiallbyggdena, þviad þa gat hann ecke wtdrifed sem j Dolunum biuggu, þviad þeir hofdu Jꜳrn-Vagna.

20. Og Caleb gꜳfu þeir Hebron, sem Moses

ses hafde sagt, og hann wtrymde þadann Þria Sonu Enaks.

21. Enn Born BenJamins wtdrifu ecke þa Jebusita, sem biuggu j Jerusalem, helldur biuggu Jebusitar j Jerusalem, hioa BenJamins Bornum, allt til þessa Dags.

22. So og fooru Born Josephs upp til BethEl, og DROttinn var med þeim.

23. Og þeir af Josephs Hwse niosnudu um BethEl (hvor ed kalladest j fyrre Tijdenne Lus).

24. Og Vardhallds Mennerner sœu eirn Mann af Stadnum ganga, og sogdu til hans, Vijsa þu oss hvar vier meigum komast j Borgena, þa vilium vier syna þier Miskun.

25. Enn sem hann hafde vijsad þeim þar þeir mœttu j Stadenn koma, þa slou þeir Stadenn med Sverds eggium, enn þann Mann og alla hans Ætt lietu þeir fara.

26. Þa foor sa hinn same Madur j Land þeirra Hethita, og biggde einn Stad, og kallade hann Lus, so kallast hann allt til þessa Dags.

27. Og Manasse wtrak ecke BethSean med hennar Dœtrum, eige helldur Thaenach med hennar Dœtrum, og eige helldur Innbyggiara j Dor med hennar Dœtrum, eige helldur þa Innbyggiara j Jebleam med hennar Dœtrum, og ei helldur þa sem biuggu j Megiddo med hennar Dœtrum. Og Cananitarner toku til ad bwa j þvi sama Lande.

28. Enn sem Israel efldest ad stirk, þa giorde hann Cananitana Skattgillda, og wtdreif þa ecke.

29. Ephraim wtdreif eige helldur þa Cananita sem biuggu j Gazer, helldur biuggu Cananitar j bland þeirra j Gazer,

30. Sebulon wtdreif og ecke helldur þa Innbyggiara j Kitron og Nahalol, helldur biuggu Cananitar hioa þeim, og voru skattgillder.

31. Asser wtdreif eige helldur þa Innbyggiara j Ako, eige helldur þa Innbyggiara j Zidon, j Ahelab, j Achsib, j Helba, j Aphik, og j Rehob,

32. Helldur biuggu Assers Nidiar med þeim Cananitum sem biuggu j Landenu, þvi þeir wtrymdu þa ecke.

33. Nephthali wtrymde eige þa Innbyggiara j BethSemes, ei helldur þa j Beth Anath, helldur biuggu þeir medal Cananita, sem biuggu j Landenu, Enn þeir j Beth Semes, og j BethAnath urdu Skattgillder.

34. Og þeir Amoritar þreyngdu Dans Bornum uppa Fialled, og leyfdu þeim ecke ad koma ofan j Dallended,

35. Og þeir Amoritar toku til ad bwa a Fiallenu Heres, j Aialon, og j Saalbim. Þo urdu þeim Hendurnar af Josephs Hwse ofþungar, og urdu Skattgillder.

36. Enn Landamerke þeirra Amoritarum, voru þar sem upp er geinged til Akrabbim, og fra Steinenum og fra Hœdinne.

## II. Capitule.

(I) Greatur Israels Barna: (II) Skurdgodadijrkun; (III) Straff; (IV) Frelsun.

I. Þa kom (a) Eingell DROTTins upp fra Gilgal til Bochim, og sagde, Eg hefe leidt ydur upp hingad wr Egyptalande, og fært ydur j þad Land sem Eg soor ydar Fedrum og sagde, Ad Eg villde alldrei yfergiefa minn Sœttmœala vid ydur,

(a) (Eingell) Presturenn Phinehas.

2. So ad þier skylldud ongvann Sœttmœala giora vid þessa Lands Innbyggiara, og þier skylldud sundurbriota þeirra Alltare. Enn þier hlyddud ecke minne Raust, Þvi hafed þier þad giort?

3. Þa sagde Eg og so, Eige vil Eg wtryma þa fyrer ydur, so þeir verde ydur ad eirnre Snoru, og þeirra Skwrgod ydur ad Nete.

4. Og sem Eingell DROTTins hafde talad oll þesse Ord til allra Israels Barna, þa upphoof Folked sijna Raust, og griet,

5. Þeir kolludu þann stad (b) Bochim, og færdu DROTTne Foorner j þeim sama Stad.

(b) (Bochim) þydist grœtande.

6. Þvi þa Josua hafde lœted Folked fra sier,

sier, og Israels Born voru af stad farenn, hver til sinnar Arfleifdar, ad eignast Landed,

7. Þa þionade Folked DROTTni, so leinge sem Josua lifde, og þeir ellstu Menn, sem leinge lifdu epter Josua, og sied hofdu alla stora DROTTins giorninga, sem hann hafde giort Israel.

8. Og sem Josua, Son Nun, DRottins Þienare, var andadur, þa hann var Hundrad og Tiju Aara gamall,

9. Jordudu þeir hann j Timnath Heres, j Landamerkium siins Erfda parts, a Fiallenu Ephraim, j Nordur fraa þvi Fialle Gaas.

II. 10. Þa þeir aller, sem lifad høfdu a þeim tijma, hofdu safnast til sinna Fedra, kom ein onnur Ætt upp epter þa, hvor ad ecke þeckte DROTTinn, nie helldur þau Verk sem hann hafde giort vid Israel.

11. Þa giordu Israels Born jllt fyrer DROTTne, og þionudu Baalim,

12. Og yfergaafu DROTTinn Gud sinna Fedra, hver þa hafde leidt af Egyptalande, og epterfilgdu annarlegum Gudum, þess Folks Gudum, sem biuggu j kringum þa, og tilbaadu þa, og styggdu DROTTinn.

13. Þvi þeir yfergaafu DROTTinn Æ og alltijd, enn þionudu Baal og Astharoth.

III. 14. So upptendradest þa DROTTins Reide yfer Israel, og hann gaf þa j þeirra Hendur sem þa ræntu, ad þeir skylldu ræna fraa þeim, og hann sellde þa j sinna Ovina Hendur þar j kring. Svo þeir gaatu ecke framar meir staded j moot siinum Ovinum,

15. Helldur j hvorn maata þeir villdu bera sig ad, þa var Hond DROTTins j moot þeim, til Olucku, so sem DROTTinn hafde sagt og svared þeim, og þeir þreyngdust hardlega.

IV. 16. Og þa DROTTinn uppvakte þeim nu Domendur, sem frelstu þa af Ræningianna Hondum,

17. Þa voru þeir ecke helldur þeim Domendum hlyduger, Helldur fromdu þeir Hoor med annarlegum Gudum, og tilbaadu þa, og viku skiott af þeim Veige sem þeirra Fedur hofdu geinged a, ad hlyda Bodordum DROTTins, og giordu ecke sem þeir.

18. Og þa DROTTinn uppvakte þeim Domara, þa var DROTTinn med Domaranum, og hiaalpade þeim af þeirra Ovina Hondum, so leinge sem sa Domarenn lifde. Þvi DROTTni sa aumur a þeirra Kveinan, yfer þeim sem þvingudu þa, og þreyngdir ad þeim.

19. Enn þegar sa Domarenn deyde, þa sneru þeir sier og fordiorfudu þad meir enn þeirra Fedur, so ad þeir filgdu odrum Gudum, ad þiona þeim, og tilbidia þa, Þeir viku ecke af siinum Asetninge, eige helldur af siinu hardvydugu Athæfe.

20. Og þvi uppkveiktest Reide DRottins yfer Israel, ad hann sagde, Sokum þess ad þetta Folk hefur yfertrodid minn Sattmaala, sem Eg hefe boded þeirra Fedrum, og hlyder ecke minne Raust,

21. Þa vil Eg hier epter ecke wtreka Heidingiana, sem Josua liet epter, þa hann deyde.

22. So ad Eg vil reyna Israel med þeim, ef þeir vilia bliifa a Herrans Veige, og ganga þar a, sem þeirra Fedur voru, eda eige.

23. So liet DROTTinn þessa Heidingia bliifa, ad hann wtrymde þa ecke so snoggt, þa sem hañ hafde ecke yfergiefed i Josua Hond.

# III. Capitule.

Israels Domendur; (I) Athniel; (II) Ehud; (III) Samgar.

I. Þesser eru þeir Heidingiar sem DRottinn liet epter vera ad reyna med Israel, sem ecke þar vissu af Canaans Bardogum,

2. Og ad Israels Barna Ættkvijsler vissu og lærdu ad beriast, þeir sem aadur vissu þar ecke af,

3. Sem eru þeir fimm Philistea Hofdingiar, og aller Cananitar, og Zidoniar, og Hevitar, sem biuggu hiaa Fiallenu Libanon, fra þvi Fialle Baal Hermon, allt til þess ad komed er ad Hemath.

4. Þesser

4. Þesser somu voru epter, so ad Israel skylldc reynast med þeim, So þad mætte opennbert verda, hvort þeir villdu hlyda Bodordum DROTTins, sem hann hafde boded þeirra Forfedrum, fyrer Mosen.

5. Þa Israels Børn bigu so a medal Cananita, Hethita, Amorita, Pheresita, Hevita, og Jebusita,

6. Þa toku þeir þeirra Dætur sier til Eiginnkvenna, og gaafu þeirra Sonum sijnar Dætur, og þionudu þeirra Gudum,

7. Og giordu þad jllt var fyrer DRottni, og gleymdu DRottni þeirra Gude, og þionudu Baalim, og Skoogarlundunum,

8. Þa uppkveiktest Reide DROTTins yfer Israel, og hann sellde þa under Hond CusanRisathaims, Kongs j Mesopotamia, Og Israels Børn þionudu CusanRisathaim j aatta Aar.

9. Þa kølludu Israels Børn til DRottins, Og DRottinn uppvakte þeim eirn Frelsis Mann, sem þa frelsade, Athniel, Son Kenas, hvor ad var Calebs yngste Broder,

10. Og Ande DROTTins var j honum, og hann var Domare j Israel, hann reiste vt til Strijds, Og DROTTinn gaf CusanRisathaim, Konginn af Syria, j hans Hond, so hans Hond vard honum yfersterkare.

11. So var Landed j Kirrdum j Fiorutijge Aar. Og Athniel, Son Kenas, deyde.

II. 12. Enn Israels Børn giordu enn nu jllt fyrer DROTTne, þa stirkte DRottinn Eglon, Kong Moabita, j mot Israel, fyrer þvi, ad þeir giordu jllt fyrer DROTTni.

13. Og hann safnade Ammons Børnum til sijn, og þeim Amalechitum, og hann ferdadest af stad, og sloo Israel, og took Palma-stadenn fraa þeim.

14. Og Israels Børn þionudu Eglon, Moabita Konge, j aatian Aar.

15. Þa hroopudu þeir til DROTTins, Og DROTTinn uppvakte þeim eirn Frelsara, Ehud, Son Gera, Sonar Jemini, hann var ørvhendtur.

16. Og þa Israels Børn sendu Eglon, Moabita Konge Gaafur med honum, giorde Ehud sier eitt Tvijeggiad Sverd, eirnar alnar langt, og batt þad under sitt Klæde a sitt hægra Lær,

17. Og førde Eglon Moabita Konge Skeinkenn. Enn Eglon var miøg feitur Madur.

18. Og sem hann hafde afhendt Skeinkenn, þa liet hann Folked fra sier, sem Gaafurnar høfdu bored.

19. Og snere aptur fra Afgudunum j Gilgal, og liet kunngiora, Eg hefe, O Kongur! nockud heimuglegt ad seigia þier. Enn hann bad ad giefa hliod, og þeir aller geingu vt fra honum, sem j kringum hann stoodu.

20. Og Ehud kom jnn til hans, Enn hann sat j einum Sumar Sal. Og Ehud sagde, Eg hefe Guds Ord til þijn. Þa stod hann upp af sijnum Stool.

21. Enn Ehud vtrietter sijna Vinstre Hond, og greip Sverded af sijnu hægra Lære, og keirde þad j hans Kvid.

22. So ad Skapted gieck jnn med Bladenu, og Isturenn hulde Bladed (þvi hann droo ecke Sverded aptur af hans Kvide,) so ad Saurenn gieck af honum.

23. Enn Ehud gieck vt af (a) Salnum, og liet aptur Dyrnar epter sier, og sloo þeim j Laas.

(a) (Salnum) Raadstofunne, þar ed sætenn voru stickud.

24. Og sem hann var vtgeingenn, þa komu Kongsins Þienarar jnn, og saau, ad Dyrnar a Sumar Salnum voru aptur luktar, og søgdu, Skie ma, ad Kongurenn sie geingenn til Naudsynia erinda sinna j Raadhwsed hiaa Sumar Salnum.

25. Enn sem þeir bidu so leinge, ad þeir blygdudust vid, þvi eingenn lauk upp Dyronum a Salnum, þa tooku þeir Lykelenn og luku upp, sia, þa laa þeirra Herra daudur a Gølfenu.

26. Enn Ehud komst undann a medann

þeir stolldrudu, og gieck framm hioa Afgudonum, og komst undann til Seirath.

27. Og sem hann kom þar jnn, blies hann j Basunur a Ephraims Fialle. Og Israels Børn ferdudust med honum af Fiallenu, og hann foor undann heim.

28. Og sagde til þeirra, Filged mier epter, þvi DROttinn hefur giefed ydur þa Moabita, ydar Ovine, j ydar Hendur. Og þeir filgdu honum epter, og þeir jnntooku øll Vød a Jordan, sem lagu til Moab, og lietu øngvann Mann komast yfer um,

29. Og sloou þa Moabita a þeim Tijma, nær Tiju Pusund Menn, alla saman, þa enu bestu og hraustustu Strijdsmenn, so ad þar komst ecke eirn undann,

30. So urdu Moabitar a þeim Tijma underþricktter under Hende Israels Barna, og Landed hvijldest j aattatijge Aar.

III. 31. Pvi nærst var Samgar Son Anath, hann sloo Sex Hundrud Philisteos, med einu Nauta prike, og hann frelsade eirnenn Israel.

# IV. Capitule.

(I) Debora Spaakona; (II) Baraks Herfør; Jaels Frægdarverk.

I. Israels Børn giordu enn framar Illgiorder fyrer DROTTni, epter Andlaat Ehud.

2. Og DRottinn sellde þa j Hond Jabin, sem ad var Kongur þeirra Cananita, hvør ad sat j Hazor, Sissera var hans Hershøfdinge, og hann bioo j Haroseth þeirra Heidnu.

3. Og Israels Børn kølludu til DRottins, þviad hann hafde Niju Hundrud Jaarnvagna, og þvingade Israels Børn med Magt, j Tuttugu aar.

4. A þessum sama Tijma var Su Spaakona Debora Domare j Israel, hvør ed var Eigennkona (þess Manns sem hiet) Lapidoth.

5. Og hun bioo under Palma Trienu Debora, j millum Rama og BethEl, a Fiallenu Ephraim, og Israels Børn komu upp til hennar, til Moala Allita.

6. Su sama sende wt, og liet kalla til sijn * Barak, Son AbiNoam, af Kedes Nephthali, og liet seigia honum, Hefur ecke DROTTinn Israels GUD boded þier? Far hiedan, og ferdast uppa Fialled Thabor, og tak Tiju Pusund Manns med þier af Børnum Nephthali, og Sebulon?

* Ebr. 11, 32.

7. Pvi Eg vil leida Sissera, Jabin Strijds Høfudsmann, til þijn, vid þad Vatn Kison, med sijna Vagna, og med allann sinn Hoop, og Eg vil giefa hann j þijnar Hendur.

8. Barak svarade henne, Ef þu villt fara med mier, þa vil eg fara, enn ef þu villt ecke ferdast med mier, þa fer eg hvørge,

9. Hun sagde, Eg vil fara med þier, enn øngvann Prijs muntu faa af þessare Ferd sem nu fer þu, helldur mun GUD giefa Sissera j Hond eirnrar Kvinnu. Og epter þetta bioo Debora sig, og foor med Barak til Kedes.

II. 10. Pa kallade Barak Sebulon og Nephthali til Kedes, og reiste gangande med Tiju Pusund Manns. Debora var og j for med honum.

11. Enn Heber Keniter var komenn fra Kenitum, hann var kominn af Børnum Hobabs, Mags Mose, og hafde reist sijna Tialldbwd hioa þeirre Eik Zaanaim, hioa Kedes.

12. Pa fieck Sissera ad vita, ad Barak, Son AbiNoam, var komenn a Fialled Thabor.

13. Og hann samansafnade øllum sijnum Vøgnum, niju Hundrud Jaarn-Vagna, og øllu þvi Folke sem var med honum, fra Haroseth Heidingianna, allt ad þvi Vatne Kison.

14. Og Debora sagde til Barak, Rijs upp, Petta er sa Dagur a hvørium DRottinn hefur giefed Sissera j þijnar Hendur, þvi

þvi DROttinn mun fara vt undann þier. So foor Barak nidur af Fiallenu Thabor, og þau Tiju Þuſund Manna epter honum.

15. Enn GUd ſkielfde Siſſera, og alla hans Vagna, og allann Herenn, fyrer Baraks Sverds Eggium, ſo ad Siſſera ſtock af ſijnum Vagne, og flyde a Fæte undann.

16. Enn Barak ſokte epter Vagnonum og Hernum, til Heidingianna Haroſeth, og allt Herfolk Siſſera fiell fyrer Sverds Eggium, ſo þar var ecke eirn epter.

III. 17. Enn Siſſera flyde a Fæte j Tialldbwd Jael, (*) ſem var Huſtru Hebers Kenita, þvi Jabin, Kongur af Hazor, og Hebers Kenita Hws, hofdu frid hvorier vid adra.

(*) (Jael) þetta er ſkied 120. Aarum epter Moſen, og 88. Aarum epter Joſuam.

18. Pa gieck Jael vt jmote Siſſera, og ſagde til hans, Vijk, minn Herra, vijk til mijn, og ottaſt ecke neitt. Og hann ſnere jnn til hennar j Tialldbwdena. Og hun breidde yfer hann Skickiu.

19. Hann ſagde til hennar, Eg bid, gief mier lijted Vatn ad drecka, þvi mig þyrſter. Pa tok hun upp eina Miolkur byttu, og gaf honum ad drecka, og breidde yfer hann aptur.

20. Og hann ſagde til hennar, Gack vt j Tiallds Dyrnar, og kome þar nockur og ſpyrie ad, hvort hier er nockur? Pa ſeig þu, ad hier ſie eingenn.

21. Pa tok Jael, Kvinna Heber, eirn Bwdar nagla, og Hamar, j ſijna Hond, og gieck hlioodlega jnn til hans, og ſloo Naglann j giegnum hans Gagnauga-Vanga, ſo hann nam Stadar j Jordu, enn hann var fallenn j faſtann Svefn, vard vanmœttugur, og deyde.

22. Enn þa Barak ſokte epter Siſſera, þa kom Jael vt moote honum, og ſagde til hans, Far hingad, eg vil ſyna þier þann Mann ſem þu leitar epter. Og ſem hann gieck jnn til hennar, laa Siſſera Daudur, og Naglenn ſtood j giegnum hans Gagnaugu,

23. Med þeſſum hætte nidur-þrickte GUd j þann Tijma Jabin, Cananita Kong, fyrer Iſraels Bornum.

24. Og Iſraels Barna Hond fieck frammgang, og vard ſterk moot Jabin, Cananita Konge, þar til ad þeir afmœdu hann.

V. Cap. 1. Pa ſungu Debora og Barak, Sonur Abi Noam, a þeim Tijma, og ſøgdu.

## V. Capitule.

Deboræ og Barachs Lof-Saungur.

2. Lofed DROTTINN, (a) ad Iſrael er ordenn Frij aptur, og ad Folked var vel vilugt þar til.

(a) Meining þeſſa Loffſaungs er þetta, ad GUd hafe ſleiged Siſſera fyrer þa minnſtu hættar Menn j Iſrael, uppa þad, ad þeir fyrerlitnu feingu og Heidur, þa þær ſtooru megtugu Kinkvijſler Iſraels ſætu kirrar, og yfergæfu ſijna Brædur j þeirra Neyd. Þetta er þad Nya ſem DROTTINN hefur Utvaled, þa eru bændur Iſrael upphafder og Herrar ordner.

3. Heyred til þier Kongar, og giæted ad þier Hofdingiar, eg vil ſyngia DRottni, Ja, DRottni Iſraels GUde vil eg ſyngia.

4. DRottinn, þa þu reiſter vt af Seir, og giecſt fra Edoms Vollum, þa bifadeſt Jordenn, Himenenn draup, og af Skyonum draup Vatn.

5. Fiollenn runnu fyrer DROTTne, Sinai fyrer DROTTne Iſraels GUde.

6. A Tijma Samgars, Sonar Anaths, j Jaels Tijma, forgeingu Veigerner, og þeir ſem ganga ſkilldu a beinum ſtijgum þeir geingu (b) krookotta Vegu.

(b) (Krookotta Veige) þad er, þar var eingenn Stiorn edur gott Skick j Landenu.

7. Par þraut, Bændur þraut j Iſrael, þar til eg Debora uppkom, þar til eg uppkom, ein Moder j Iſrael.

8. GUd hefur vtvaled eitt nytt, hann hefur Borgarhlidenn jnnteked, þar ſaaſt hvorke Skiolldur nie Spioot a millum Fiorutijge Þuſunda j Iſrael.

9. Mitt Hiarta hefur Lyſt til Iſraels Stior-

Stiornara, sem eru viliuger a medal Folksins. Lofed DROTTinn,

10. Þier sem rijded fogrum Ösnum, þier sem sitied j Domenum, og synged, þier sem ganged a Veigenum.

11. Þar sem Bogmennerner hroopa a medal þeirra ed Vatned ausa, þar seigia Menn af DROTTins Riettlæte, af hans Bænda Riettlæte j Israel, þa ferdadest Guds Folk nidur til Portanna.

12. Upp, upp, Debora, upp upp, og syng eina Vijsu, tak þig upp, Barak, og fanga þijna Fanga, þu Son AbiNoam.

13. Þa DRottnudu þeir sem epter voru ordner yfer þad Megtuga Folk, DRottinn hefur stiornad fyrer mig yfer þa Volldugu.

14. Af Ephraim var þeirra Root jmoot Amalech, og epter þig BenJamin j þijnu Folke. Af Machir eru komner stiornendur, og af Sebulon þeir ed DROttna fyrer Skriffiadrer.

15. Og Hofdingiar af Isaschar voru med Debora, og Isaschar var sem Barak j lægdernar vtsendur med sijnum Footgongorum, Ruben hiellt miked af sier, og skilde sig fra oss.

16. Hvar fyrer varstu epter a millum Sauda Hwosanna, (c) ad heyra jarm Hiardarennar, og þu hiellst miked af þier, og skilder þig fra oss?

(c) (Saudahusid) þu varst heima, þo þu heyrder þann litla Flock blaasa til Bardaga, og varst þo j Neaud.

17. Gilead var hinumeigenn Jordanar, og þvi bioo Dan a millum Skipanna? Asser sat vid Sioafarhofn, og var j sijnum nidurbrotnu Þorpum.

18. Enn Folk Sebulon hætte sijnum Saalum j Dauda, og Nephthali a þeim Hædum j Morkenne.

19. Kongarner komu og heriudu, þa heriudu þeir Cananita Kongar j Thaanach, hiaa Megiddo Vatne, enn þeir unnu þar ongvann Sigur.

20. Af Himnenum var barest jmoote þeim, Stiornurnar j sinne raas striddu jmot Sissera.

21. Lækurenn j Kison umvellte þeim, Lækurenn Kedumim, Lækurenn Kison. Mijn Saal, Stijg þu uppa þa sterkvo,

22. Þa bifudust Hestafæturner, af misstrauste sinna sterkvu Riddara.

23. Bolved þeim Stad Meros, sagde GUds Eingell, Bolved hans Borgorum, þvi þeir komu ecke DROTTni til hiaalpar, jaa, DROTTni til hiaalpar jmoote Koppunum.

24. Blessud vere Jael a medal Kvenna, Kvinna Heber, þess Kenita, blessud sie hun j Tialldbwdum a medal Kvenna.

25. Hun gaf Miolk, þa hann bad um Vatn, og bar Smior framm j eirnre fordilldarlegre Skaal.

26. Hun tok Naglann med sinne Hond, og Smids hamarenn med sinne hægre Hende. Og sloo Sissera j giegnum sitt Hofud, og molvade, og j giegnum borade hans Gagnaugu.

27. Fyrer hennar Footum beygde hann sig, fiell nidur, og lagde sig, Hann beygde sig, og fiell nidur fyrer hennar Fætur, Lijka sem hann beygde sig so laa hann fallenn.

28. Sissera Moder saa vt um Vindaugad, og griet j gegnum Grindurnar, Þvi tefur hans Vagn, ad hann kemur ecke? Þvi eru Hiolenn hans Vagns so sein.

29. Þær vijsustu a millum hennar Kvenna svorudu, þa hun liet ecke af ad harma,

30. Skulu þeir ecke finna, og Herfaangenu vtskipta, Sierhvorium Manne eina Stulku, eda tvær til bytis, Og Sissera mislitudum stongudum Klædum til bytis, stongudum mislitudum Klædum um Haalsinn til bytis?

31. So skulu, DROTTinn, aller þijner Oviner fyrerfarast, Enn þeir sem elska þig skulu vera lijka sem þa Soolenn uppgeingur j sinne Magt. Og Landed var kirrt j Fiorutijge Aar.

# VI. Capitule.

Um Gedeon Domara.

Og þa Jsraels Born giordu jlla j Auglite DROTTins, gaf DROTTinn þa under Hendur Madianita j sio Aar,

2. Enn sem Hond þeirra Madianita vard offsterk yfer Jsrael, þa giorde Jsraels Folk sier Fylsne a Fiollum, og Hellera, og Vijge.

3. Og þegar Jsrael ſaade nockru (Kornsæde) þa komu Madianitar, og Amalekitar, og þeir vor Austurœlfu uppyfer þa,

4. Og lœgdu sig j mot þeim, og fordiorfudu Landsins Avoxtu, allt til Gaſa, so ad Jsrael hiellt ongre Biorg epter, hvorke Saud, nie Naute, nie Asna.

5. Þviad þeir ferdudust upp med sinn Kvikfenad, og sijnar Tialldbvoder, so (til ad jafna) sem mikell fiolde Engespretta, so ad bæde þeir og þeirra Ulfalldar voru otelianleger, og fiellu jnn j Landed ad fordiarfa þad.

6. So vard Jsrael miog underþricktur af þeim Madianitum.

7. Þa kolludu Jsraels Born til DRottins. Enn sem þeir kolludu til DROttins, sokum Madianitanna,

8. Þa sende Gud DRottinn einn Spamann til þeirra, hann sagde til þeirra, So seiger DROTTinn Gud Jsrael, Eg færde ydur vt af Egyptalande, og leidde ydur af þui Prældoms Hwse,

9. Og frelsade ydur af Egyptskra Hende, og fra allra þeirra Hende sem ydur þvingudu, og Eg vtrhratt þeim fyrer ydur, og gaf ydur þeirra Land.

10. Og Eg sagde til ydar, Eg er DRottinn ydar Gud, oottest ecke þa Amoritanna Gude, j hvorra Lande þier bwed, Enn þier hafed ecke hlydt minne raustu.

11. Og Eingell DROTTins kom og sette sig under eina Eik j Ophra, hvor ad tilheyrde Joas, Fodur þeirra Esrita, og hans Son Gedeon var ad þreskia Hveite j Pressu, so hann mætte flya fyrer Madianitum,

12 Þa birtest Guds Eingell honum, og sagde til hans, DROttin sie med þier, þu Strijdskappe,

13. Enn Gedeon svarade honum, Minn Herra, Sie DROTTinn med oss, þvi hender oss þa allt þetta? Og hvar eru þær allar Dasemder sem vorer Forfedur frammtoldu oss, og sogdu, DROTTinn hefur fært oss af Egyptalande? Enn nu hefur DROttinn yfergiefed oss, og giefed oss under Hendur Madianitanna.

14. Þa snere DROTTinn sier til hans, og sagde, Far af stad j þessum þijnum styrkleika, þu skallt frelsa Jsrael af Hondum þeirra Madianitarum, Sioa þu, Eg hefe vtsendt þig.

15. Enn hann sagde til hans, Minn Herra! Med hvoriu skal eg frelsa Jsrael? Sioa, Mijn Ætt er su hin minnsta a medal Manasse, og eg er þann minnste j mijns Fodurs Hwse.

16. DROTTinn sagde til hans, Eg vil vera med þier, so þu skallt sloa þa Madianita, so sem eirn einungis Mann.

17. Þa sagde hann til hans, Hafe eg funded Nad fyrer þier, þa gior mier eitt Teikn, ad þu ert hann sem talar vid mig.

18. Far ecke j burt, fyrr enn eg kiem til þijn, og ber mitt Matoffur, so eg setie þad fyrer þig, Hann svarade, Eg vil bijda þar til þu kiemur aptur.

19. Og Gedeon kom, og sloatrade einu Hafurkide, og (tok) eina Epha med osyrt Miol, lagde Kioted j eina Korf, og liet Soded j eirn Pott, og bar þetta vt til hans under Eikena, og gieck framm.

20. Þa sagde Guds Eingell til hans, Tak Kioted og þad osyrda, og legg þad uppa þennann Stein sem hier er, og steyp ut Sodenu, og hann giorde so.

21. Þa vtriette DROTTins Eingell þann Staf sem hann hafde j Hendenne, og snart Kioted med (Stafs) endanum, og so þad osyrda Mioled, Og Elldur spratt upp

af Steinenum, og fortærde Kiotinu, og þvi ofyrda Miole, Og DROTTins Eingell hvarf fra hans Augum.

22. Sem Gedeon sa nu, ad þad var Eingell DROTTins, sagde hann, O DRottin, DRottinn! Hefe eg so sied DRottins Eingel fra Andlite til Andlitis,

23. Þa sagde DROTTinn til hans, Fridur vere med þier, Ottast þu ecke, ecke skalltu deya.

24. Þa biggde Gedeon DROTTni eitt Alltare j þeim sama stad, og kallade þad, DROTTinn Fridarins, og þad stendur enn a þessum Deige j Ophra, sem heyrde til Fodur þeirra Esrita.

25. Og a þeirre sömu Nott sagde DRottinn til hans, Tak eirn Uxa a medal þijns Fodurs Uxa, og eirn annann Uxa Sio Aara gamlann, og briot nidur þad Baals Alltare, sem er þijns Fodurs, og afhogg þann Lund sem þar er hiaa,

26. Og uppbigg DRottni Gude þijnum eitt Alltare, upp efst a Hæd þessa steins, og til bwo þad, Tak annann Uxann, og offra Brenne Offre, med Vidnum af þeim Lunde, sem þu upp hioost,

27. Þa took Gedeon Tiju Menn af sijnum Þienorum, og giorde so sem DRottinn hafde honum sagt. Enn hann þorde eige ad giora soddann um Daginn, sokum sijns Fodurs Huss, og sokum Folksins j Stadnum, og giorde þetta a Noattartijma.

28. Þa Stadarins Folk stood nu aarla upp um Morgunenn, Sioa, þa var Baals Alltare nidur broted, og Lundurenn þar hiaa upphoggvenn, og sa annar Uxe eitt Brenne Offur a Alltarenu, sem uppbiggt var.

29. Og eirn sagde til annars, Hvor mun þetta hafa giort? Enn sem þeir rannsokudu, og epter spurdu, þa var sagt, Gedeon, son Joas, hefur giort þad.

30. Þa sagde Folked j Stadnum til Joas, Sel þinn son framm, hann skal deya, af þvi hann hefur nidur broted Baals Alltare, og af hoggved Lundenn þar hiaa.

31. Þa sagde Joas til allra þeirra sem stoodu hiaa honum, Vilied þier þraatta vegna Baals? vilied þier hialpa honum? Hvor sem reiser Þrætur hans vegna sa skal deya þennann Morgun. Sie hann Gud, þa hefne hann sialfur sijn, ad hans Alltare er nidur broted.

32. Upp fra þeim Deige kolludu Menn hann JerubBaal, og sogdu, Baal hefne sijn sialfur, ad hans Alltare er nidur broted.

33. Nu sem aller Madianitar og Amalekitar, og þeir af Austurlande hofdu samann safnast, og drou j gegnum, og legrudu sig j Jesreels Dal,

34. Þa jklæddist Guds Ande Gedeone. Og hann liet bleasa j Basunur, og kallade AbiEser, ad hann skyllde filgia sier.

35. Og hann sende bod til alls Manasses, og kallade þa, ad þeir skylldu honum og so epterfilgia. Hann sende og bod til Asser, og Sebulon, og Nephthali, þeir komu upp j mote honum.

36. Og Gedeon sagde til Guds, Ef þu villt frelsa Jsrael fyrer mijna Hond, so sem þu hefur sagt,

37. Þa vil eg leggia eina Giæru j Lafagardenn, og kome alleinasta Dogg a (a) Giæruna, enn oll Jordenn er þurr j kring, þa vil eg merkia, ad þu villt frelsa Jsrael fyrer mijna Hond so sem þu hefur sagt.

(a) (Giæru) Mann maa þad so wtleggia, þo þad hafe mealt vera afklippt Ull.

38. Og þad skiede so. Og um Morgunenn þess annars Dags, þegar aarla, sem hann stod upp, vatt hann Doggena wr Giæruune, og fyllte eina Skaal fulla med Vatn.

39. Og Gedeon mællte vid Gud, Þijn Reide upp æfest ecke vid mig, þo eg tale enn einu sinne, og vil giora raun til enn einu sinne med þessa Giæru, Laat nu Giæruna alleinasta þurra vera, enn Jordena alla doggvada.

40. Og Gud giorde so a þeirre somu Nott ad Giærann alleina var þurr, enn Dogg a allre Jordunne.

## VII. Capitule.

Gedeon vinnur Sigur a Madianitunum.

Epter þetta tok sig upp JerubBaal, þad er * Gedeon, snemma Morguns, og allt þad Folk sem med honum var, og sette sijnar Herbuoder hia þeim Brunne Harod, so hann hafde Her þeirra Madianita nordur fra sier, a bak vid þa Hæd, sem þeir hielldu sitt Vardhalld j Dalnum. *Ebr. 11,32.

2. Og DROTTinn sagde til Gedeon, Þu hefur of margt Folk med þier, ad Eg skule giefa Madian j þeirra Hendur, Jsrael mætte hroosa sier a mote mier, og seigia, Mijn Hond hefur frelsad mig.

3. Þar fyrer loattu vthroopa fyrer Folksins Eyrum, og seigia, Hvor sem hann er hræddur og efadur, hann snue aptur, og skunde strax fra Gilead Fialle. Þa sneru aptur af Fiallenu tvær Þusunder Manna og tuttugu, so eige vard nema Tiju Þusunder Manna epter.

4. Og DROTTinn sagde til Gedeon, enn er Folked ofmargt, leid þa nidur til Vatnsins, þar vil Eg reyna þa handa þier. Og um hvorn Eg seige þier, ad hann skule fara med þier, hann skal fara med þier, enn um hvorn ad Eg seige, hann skule ecke med þier fara, hann skal ecke fara.

5. Og hann færde Folked nidur til Vatnsins. Og DROTTinn sagde til Gedeons, Hvor sa sem lepur Vatnid med sinne Tungu sem eirn Hundur lepur, þeim skalltu skipa sier j lagé, og so hvor sem fellur a sijn Knie og dreckur Svo.

6. Og þeirra tala sem hofdu laped af Hondunum til Munnsins, var Þriu Hundrud Manns, enn allt annad Folked fiell a sijn Knie, og drack.

7. Og DROttinn sagde til Gedeon, med þessum Þremur Hundrudum Manna, sem (Vatned, hafa laped, vil Eg frelsa ydur, og giefa Madianita j þijnar Hendur, enn loat þad allt annad Folk fara j sinn Stad.

8. Og þeir tooku Vister med sier handa Folkenu, og so sijnar Basunur, enn þa alla adra Jsraelita, liet hann fara fra sier, hvorn til sijns Heimilis. Og hann eflde sig med þau Þriu Hundrud Manns, og Her þeirra Madianita loa þar nidur fra fyrer honum j nockru Dallende.

9. Og DROTTinn sagde til hans a þeirre somu Noott, Statt upp, og gack ofann til Herbudanna, þvi Eg hefe giefed þa j þijnar Hendur,

10. Enn ef þu ottast ad fara ofann, þa loat þinn Svein Þura fara med þier til Herbvodanna,

11. So þu meiger heyra hvad þeir seigia, og epter þad skalltu med Magt fara nidur til Herbvodanna. Sijdan gieck Gedeon, med sijnum Sveine Þura, nidur til þess Stadar sem þeir hielldu Skialldvörd sem j Herbvodonum voru,

12. Enn Madianitar og Amalekitar, og aller af Austurlandenu, hofdu lagt sig nidur j Dalverpinu, so sem Mergd af Eingesprettum, og þeirra Ulfalldar voru so marger, ad ecke moatte toln a koma, eins og Sandur a Sioafar strondu.

13. Enn sem Gedeon kom, sioa, þa sagde eirn odrum eirn Draum, og sagde, Sioa, mig dreymde, mier þootte, ad eitt Oskubakad Bygg Brand vellte sier ad Her Madianitanna, og sem þad kom ad Landtialldenu, þa sloo þad þad sama, og kastade þvi nidur, og umvellte þvi, so þad nedsta vard uppa, og Landtiallded loa (flatt).

14. Þa svarade hinn annar, þad er ecke neitt annad enn Sverd Gedeonis, Sonar Joas, þess Jsraelita. GUd hefur Madianitana j hans Hendur giefed med ollum þeim Her.

15. Enn sem Gedeon heyrde soddann eirn Draum frammsagdann, og hans vtlegging, þa badst hann fyrer, og kom aptur til Jsraels

Hers, og sagde, Taked ydur upp, þvi Drottinn hefur giefed Her þeirra Madianita j ydar Hendur.

16. Og hann skipte þessum þremur Hundrudum Manns j Þria Flocka, og fieck hvorium eina Basunu j sijna Hond, og toma Krws, og Blis þar j,

17. Og sagde til þeirra, Horfed a mig, og giored slijka so, og sioaed, þegar eg kiem þangad ad sem Herinn er, þa giored eins og eg giore,

18. Þa eg blæs j Basunu, og aller þeir sem med mier eru, þa skulu þeir og so blaasa j Basunur j Kringum allann Herinn, og seigia, Hier er DROTTinn og Gedeon.

19. So kom Gedeon, og þeir Hundrad Menn med honum, ad þeim Stad sem Herinn var, ad þvi firsta Vardhallde sem þar var skickad, og uppvoktu þa, og bliesu j sijnar Basunur, og sloou Krusernar j sundur j sijnum Hondum,

20. So bliesu aller þesser Þrijr Flockar j Basunur, og brutu j sundur Kruserar, enn hielldu a Blisonum j sijnum Vinstre Hondum, enn Basunonum j sijnum Hægre Hondum, sem þeir bliesu j, og hroopudu, Hier er Sverd DROTTins og Gedeons!

21. Og hvor um sig stood j sijnum sama Stad, j kringum Herinn. Enn allur Herinn tok til hlaups, og hroopade og flyde.

22. Og sem þesse Þriu Hundrud Manns þeyttu sijnar Basunur, þa skickade DROTtinn þvi so, ad sierhvors Sverd snerest j giegn odrum, um allann Herinn. Og Herinn flyde til BethSittaZeredatha, allt til Landamerkia þess Vijdlendis Mehola, hia Tabath.

23. Og Israels Menn af Nephthali, af Asser, og af ollum Manasse, hroopudu, og raaku Floottann, og sooktu epter Madianitum.

24. Og Gedeon sende Bod um allar Fiallbyggder Ephraims, og liet seigia þeim. Fared ofann jmoot þeim Madianitum, og inntaked fyrer þeim Vatned, allt til BethBara og Jordan, þa hroopudu aller þeir sem voru af Ephraim, og bonnudu þeim Vatned, jnn til BethBara og Jordan.

25. Og þeir gripu Tvo af þeim Madianita Hofdingium, Oreb og Seb, og drapu Oreb a þeim Steine Oreb, og Seb j þeirre Þrwgu Seb, og raaku flootta Madianitanna, enn færdu Hofudenn af Oreb og Seb til Gedeon, yfer um Jordan.

## VIII. Capitule.

(I) Motkast Gedeons; (II) Hans Virding; (III) Ofs; (IV) Born, og (V) Daude.

I. Og þeir Menn af Ephraim sogdu til hans, Þvi giorder þu oss þad, ad þu ecke kallader oss, þa þu foorst j þetta Strijd jmoot þeim Madianitum? Og þeir Þrættudu hardlega vid hann.

2. Þa sagde hann til þeirra, Hvad hef eg nu þess giort sem jafnast ma vid ydar Giorninga? Er ecke eirn Vijnkvistur betre af Ephraim, helldur enn oll Vijnyrkia AbiEser?

3. Gud hefur giefed Hofdingia Madianitanna, Oreb og Seb, j ydar Hendur, hvornenn mætta eg giora þad sem þier hafed giort? Og þa hann hafde þad talad, stilltest þeirra Reide.

4. Enn þegar ad Gedeon kom til Jordanar, foor hann yfer med þau Þriu Hundrud Mañs sem voru med honum, og þeir voru þreytter, og raaku floottann.

5. Og hann sagde til Folksins j Suchoth, Eg byd ydur, giefed þvi Folke sem med mier er, nockud Braud, þvi þeir eru þreytter, so eg meige sækia epter þeim Sebah og Zalmuna, Madianita Kongum.

6. Enn þeir yppurstu j Suchoth svorudu, Eru hnefar þeirra Sebah og Zalmuna alla reidu j þijnum Hondum, so vier skulum giefa þijnum Her Braud?

7. Gedeon svarade, Nu vel, þa DROTtinn giefur Sebah og Zalmuna j mijna Hond, þa vil eg sundurþreskia ydart Holld med Þyrnum af Eydemorku, og Þyslum.

8. Og hann reiste þadann og upp til Pnuel,

og

og taladę eins til þeirra. Og Folked j Pnuel gaf honum eins Svar og hiner, sem voru j Suchoth.

9. Og hann sagde eins til Folksins j Pnuel, Ef eg kiem aptur j Fride, þa vil eg og nidurbriota þennann Kastala.

10. Enn Sebah og Zalmuna voru j Karkor, og þeirra Her med þeim, sem var nær Fimmtan Pusunder, hvorier aller voru epter ordner af þeim øllum Her ur Austurlande, þvi þad Herlid sem falled var, var Hundrad og Tuttugu Pusunder Manna, sem Vopnfærer voru.

11. Og Gedeon ferdadest upp a þann Veg, þar Menn biuggu j Tialldbwdum, Austur fra Nobah og Jagbeha, og slo þann Her, þvi sa Her oottadest ecke ad sier.

12. Og Sebah og Zalmuna flydu, enn hann rak Floottann epter þeim, og handtok þa bæda Madianita Konga, Sebah og Zalmuna, enn hrædde allann Herinn.

13. Enn sem Gedeon, Son Joas, kom aptur vor Bardaganum, fyrer Soolar uppruna,

14. Pa handtok hann eirn Svein af þvi Folke j Suchoth, og adspurde hann, Hann skrifade honum upp þa yppurstu j Suchoth, og þeirra Olldunga, Sio og Siotijge Menn.

15. Og hann kom til Folksins j Suchoth, og sagde, Sioæd, hier er Sebah og Zalmuna, um hvoria þier hæddud mig, og søgdud, Eru þa Sebah og Zalmuna Hnefar allareidu þier j Hondum? Ad vier skulum giefa Braud þijnu Folke sem þreytt er?

16. Og hann tok þa hina Ellstu j Stadnum, og Pyrna og Pysla j Eydemørku, og liet Folked j Suchoth kienna a (a) þeim.

(a) (Kienna a) þad er, ad r.yna og fornema, og hann kiennde þeim Sidu.

17. Og þann Kastala j Pnuel braut hann nidur; enn drap Folked j Stadnum

18. Og hann sagde til Sebah og Zalmuna, Hvornenn voru þeir Menn sem þier jhelslooud j Thabor? Peir svorudu, Peir voru þier lijker, og hvor þeirra so prydelegur sem Kongs Born være.

19. Enn hann sagde, Pad voru mijner Brædur, Syner minnar Modur. So sannarlega sem DROTTinn lifer, hefdud þier laated þa lifa, þa skyllda Eg ecke hafa slejged yckur jhel.

20. Og hann sagde til sijns Frumgietins Sonar Jether, statt upp, og drep þa. Enn Sveirninn droo ei sitt Sverd wt, þvi hann oottadist, sokum þess, ad hann var enn þa Barn (ad alldre).

21. Sebah og Zalmuna søgdu, Statt þu upp, og vinn a ockur, þvi epter þvi sem Madurenn er, so og er hans Kraptur. Pa stood Gedeon upp, og sloo Sebah og Zalmuna, bæda jhel, og twok þær Speingur sem voru um Hoals þeirra Ulfallda.

II. 22. Pa tøludu nockrer af Israel til Gedeon, Vert þu Herra yfer oss, þu og þinn Son, og þinn Sonar Son, sokum þess, ad þu hefur frelsad oss af Hondum Madianita,

23. Enn Gedeon svarade þeim, Eige vil eg vera Herra yfer ydur, minn Son skal og einginn Herra yfer ydur vera, helldur DROttinn, hann skal vera Herra yfer ydur.

III. 24. Gedeon sagde til þeirra, Eins Hlutar beidunst eg af ydur, ad hvor ydar eirn giefe mier þær Ennisspeingur sem hann hefur ad Herfoange feinged, þviad af þvi þeir voru Ismaelitar, þa høfdu þeir Gullhlader um Enne.

25. Peir søgdu, Pær vilium vier giefa þier. Og þeir breiddu nidur eitt Klæde, og lagde hvor eirn og eirn þar uppa þær Ennisspeingur sem hann hafde rænt.

26. Enn þessar Gyllene Ennisspeingur, sem hann epterbadst, stoodu ad vigt Pusund og Sio Hundrud Sikla Gulls, fyrer utann þær Spanger, og Kediur, og Skarlats Klæde, sem þeir Madianita Kongar baaru, og so oan Healsbanda þeirra Ulfallda.

27. Og af þessu giorde Gedeon einn Lijfkyrtel, og sette hann j sinn Stad til Ophra. Og allur Israel framde Hoor þar med, og

þad vard Gedeone, og hans Hwse, til (b) Sneiplunar.
(b) Falls.

28. So lijtelæckuduſt Madianitar fyrer Iſraels Bornum, ſo þeir hoofu ecke meir upp ſitt Høfud, og Landed var kirrt um Fioru-tijge Aar, ſo leinge ſem Gedeon lifde.
IV. 29. Og JerubBaal, Son Joas, foor burt, og bioo j ſijnu Hwſe.

30. Og Gedeon hafde Siøtijge Sonu, ſem komner voru af hans Lendum, þvi hann atte margar Konur.

31. Og hans Frilla, ſem hann hafde j Sichem, fædde hønum og ſo eirn Son, þann kallade hann AbiMelech.
V. 32. Og Gedeon, Son Joas, andadeſt j goodre Elle, og var Jardadur j ſijns Fødurs Grøf Joas, j Ophra, ſem heyrde til Fødur þeirra Eſrita.

33. Enn þa Gedeon var fallenn fraa, þa ſneru ſier Iſraels Born, og fromdu Hoorraner epter Baalim, og giordu ſier Baal Berith til eins (Af) guds.

34. Og Iſraels Born minntuſt ecke a DROTTinn ſinn Gud, þann ſem þa hafde frelſad af allra þeirra Ovina Hende, allt um kring,

35. Og veittu ecke Miſkun JerubBaal Gedeons Hwſe, ſo ſem hann hafde allt gott giort Iſrael.

# IX. Capitule.

Abimelech, er hafde dreped Brædur ſijna, fær Ill og oumkvunarleg Afdrif.

Og Abimelech, Son JerubBaal, foor burt til Sichem, til ſinna Modur brædra, og talade vid þa, og vid alla ſijna Ettmenn af ſijns Modurfødurs Hwſe, og ſagde,

2. Eg bid ydur ad tala fyrer allra Manna Eyrum j Sichem, Hvort mun helldur betra vera fyrer ydur, ad Siøtiju Menn, øll Børn JerubBaal, ſieu Herrar yfer ydur, eda ad eirn Madur verde Herra yfer ydur? Hugſed jafnframt um þad, ad eg er ydar Holld og Bein.

3. Þa toludu hans Modurbrædur øll þeſſe Ord um hann, fyrer allra Manna Eyrum j Sichem, Og þeirra Hiortu hneigduſt til AbiMelech, þvi þeir hugſudu med ſier, Hann er vor Broder.

4. Og þeir gaafu hønum Siøtiju Silfurpeninga, af Hwſe BaalBerith, og AbiMelech leigde ſier med þeſſu lauſa umhleypings Menn, ſem honum epterfilgdu.

5. Og hann kom j ſijns Fødurs Hws j Ophra, og drap ſijna Brædur, Born JerubBaals, Siøtiju Menn, a einum Steine, Enn Jotham, yngſte Son JerubBaal, vard epter, þvi hann var geymdur.

6. Enn aller Menn af Sichem, og allur Almwge af Millo Hwſe ſøfnuduſt ſamann, foru burt, og hylltu Abimelech til Kongs, hiaa þeirre ſtooru Eik ſem ſtood j Sichem.

7. Sem Jotham var þetta ſagt, gieck hann burt, og foor uppa hærſta Hvirfel Fialls ſins Griſim, upphoof ſijna Rauſt, hroopade og ſagde til þeirra, Þier Menn j Sichem, heyred mig, ad Gud heyre ydur.

8. Trien fooru ad ſmyria eirn Kong yfer ſig, og þau ſøgdu til Vidſmiørstrieſins, Vert þu vor Kongur.

9. Vidſmiørs tried ſvarade, Skal eg yfergiefa minn feitleika, ſem bæde Guder og Menn heidra j mier, og fara ad ſveima upp yfer Skoogartriaam?

10. Þa ſøgdu Trien til Fijkintreſins, Kom þu, og vert vor Kongur.

11. Enn Fijkin tried ſvarade þeim, Skal eg yfergiefa minn Sætleika, og minn goodann Avoxt, og fara ad uppheſiaſt yfer Trien?

12. Þa ſøgdu Trien til Vijnvidarins, Kom þu, og vert vor Kongur.

13. Vijnvidurenn ſvarade þeim, Skal eg yfergiefa mitt Vijn, ſem gledur bæde Gude og Menn, og fara til ad uppheſiaſt yfer Trien?

14. Þa

14. Þa sogdu oll Trien til Þyrnebuskkins, Kom þu, og vert vor Kongur.

15. Og Þyrnebuskurenn svarade Triea-num, Er þad vijst, ad þier vilied sinyria mig til Kongs yfer ydur? So komed hingad og hafed Traust under mijnum Skugga, Vilied þier þad ecke, þa kome Elldur af Þyrnebu-skenum, og eyde þeim Cedrusvidum j Libanon.

16. Hafed þier nu riettelega og ærlega giort, ad þier hafed til Kongs teked Abi Melech, og hafed þier vel giort vid Jerub Baal, og hans Hws, og hafed þier giort vid hann so sem hann forskulldade vid ydur.

17. Ad minn Fader bardest vegna ydar, og lagde sitt Lijf j Hæska fyrer ydur, ad hann frelste ydur af Hende þeirra Madianita.

18. Og þier setied ydur nu upp j Dag a moote mijns Fodurs Hwse, og dræpud hans eigenn Born, Siotiju Menn, a einum Steine, Enn tookud ydur til Kongs þann Abi Melech, sem ad var hans Ambaattar Sonur, yfer þa Menn j Sichem, af þvi ad hann er ydar Broder.

19. Nu ef þier hafed giort riettelega og ærlega vid JerubBaal, og vid hans Hws, a þessum Deige, þa fagned yfer AbiMelech, og hann fagne yfer ydur.

20. Enn ef ecke, þa kome Elldur af Abi Melech, og uppbrenne Mennena j Sichem, og Hwsed Millo, sijdan kome og Elldur af Monnum j Sichem, og af Millo Hwse, og fortære AbiMelech.

21. Epter þetta flyde Jotham, og veik sier afvega, og gieck til Ber, og bioo þar, sokum sijns Brodurs AbiMelechs.

22. Enn sem AbiMelech hafde rijkt yfer Israel j Þriu Aar,

23. Þa sende Gud eirn sundurþyckis Anda a millum AbiMelech og Sichem. Þviad Menn j Sichem settu sig upp j moote Abi Melech,

24. Og brugdu honum um hans Illsku og Vanart, sem hann hafde framed j moote þeim siotiju Sonum JerubBaal, og logdu AbiMelech til þeirra hans Brædra Blood, hvoria hann hafde draped, og þeim Monnum j Sichem sem hans Hond hofdu stirkt þar til, ad hann drap sijna Brædur.

25. Og þeir Menn af Sichem giordu sier eitt Fyrersaatur, efst a Fiallenu, og rændu þa alla sem ferdudust þann Veg til þeirra. Og þetta var undervijsad AbiMelech.

26. Enn Gaal, son Ebed, kom med sij-num Brædrum, og gieck j Sichem, Enn þeir Menn j Sichem treystu a hann,

27. Og ferdudust wt a Akrana, og lasu Ber af sijnum Vijnvidum, og pressudu, og sloou up Dans, og geingu jnn j sijns Guds Hws, aatu og drucku, og formælltu Abi Melech.

28. Enn Gaal, son Ebed sagde, Hvor er AbiMelech, og hvad er Sichem, ad vier sku-lum þiona honum? Er hann ecke son Jerub Baal, og hefur sett sinn Þienara Sebul hier yfer Folk Hemors, Fodurs Sichem? Þvi skulum vier þiona honum?

29. Gud giæfe, ad Folked være under mijne Hond, so ad eg mætte wt drijfa þennann AbiMelech. Og nockur sagde til AbiMelech, Fiolgadu þijnu Herlide, og drag wt.

30. Þviad Sebul, Hofdinge j Stadnum, þa hann heyrde Ord Gaal, sonar Ebed, þa uppkveiktest hann af Reide,

31. Og sende AbiMelech bod a laun, og liet seigia honum, Sioa þu, Gaal, son Ebed, og hans Brædur, eru komner j Sichem, og hafa giort Stadenn þier mootsnuenn.

32. So tak þig nu upp a Nottu, þu og þitt Folk sem hiaa þier er, og gior þier eitt Leyne-umsaatur um þa a Morkenne.

33. Og ad Morgne, þegar Sool geingur upp, þa reid þig til snemmindis, og fall yfer Stadinn. Enn ef hann, og þad Folk sem med honum er, fer wt til þijn, þa gior vid hann sem þijn Hond finnur uppa.

34. Abimelech stood upp um Nottena, og allt þad Folk sem med honum var, og set-tust um Sichem med fiorum Fylkingum.

35. Og

35. Og Gaal, son Ebed, foor wt, og gieck wt fyrer Dyrnar a Stadarportenu, Enn AbiMelech tok sig upp wr Launsoatrenu, og pad Folk sem med honum var.

36. Enn sem Gaal soa Folked, sagde hann til Sebul, Sioa, par kiemur Folk ofan af Hæd Fiallsins. Pa svarade Sebul honum, Pier synest skuggenn af Fiallenu vera Folk.

37. Gaal talade enn framar, og sagde, Sioa, par kiemur eitt Folk nidur, midt af Landenu, og eirn Flockur kiemur af peim Veige, sem liggur ad peirre Tofra Eik.

38. Pa sagde Sebul til hans, Hvar er nu pinn Munnur sem ad so sagde, Hvor er AbiMelech, ad vier skylldum piona honum? Er pad ecke pad Folk sem pu forsmoader? far nu wt og hallt Bardaga vid hann.

39. Gaal foor wt fyrer Borgar Monnum Sichem, og hiellt Bardaga vid Abi Melech.

40. Enn AbiMelech rak hann a flootta, so ad hann flwde undann honum, og marger fiellu slegner, allt ad Portsins Dyrum,

41. Og AbiMelech var j Aruma. Enn Sebul wtrymde Gaal og hans Brædur, so ad peir moattu ecke vera j Sichem.

42. Ad Morgne gieck Folked wt j Morkenna. Og sem pad var undervijsad AbiMelech,

43. Pa tok hann Folked, og skipte pvi j pria flocka, og giorde eitt Launsoatur um pa j Morkenne. Enn sem hann soa nu ad Folked gieck wt af Stadnum, pa reiste hann sig j mote peim, og slo pa.

44. Enn Abi Melech og peir Flockar sem voru med honum, yfersiellu pa, og foru allt ad Borgarhlide, Enn peir tveir flockar yfersiellu pa alla sem wte voru j Morkenne, og sloou pa,

45. Sijdann strijdde AbiMelech a Stadenn, allann pann Dag, og vann hann, enn drap Folked par jnne var, nidur braut Stadenn, og soade Sallte par yfer.

46. Enn sem aller peir Menn sem voru j Turnenum Sichem, heyrdu pad, geingu peir jnn j Kastala sijns Afguds Hwss Berith.

47. Og sem AbiMelech heyrde pad, ad aller Menn j Turnenum Sichem hofdu samansafnast,

48. Pa gieck hann uppa Fialled Zalmon, med allt sitt Folk, pvi sem med honum var, og hann tok eina Oxe j sijna Hond, og hioo eirn Kvist af Troanum, og lypte honum upp, og lagde sier a Herdar, og sagde til alls pess Folks sem var med honum. Hvad pier soaud mig giora, pa giored strax pad sama so sem eg.

49. Pa hioo allt Folked sier hvor eirn Kvist af Troanum, og filgdu AbiMelech, og logdu pad ad Kastalanum, og kveiktu Elld par j, so ad aller peir Menn sem voru j Turnenum j Sichem, droapust, nær Pusund, Karlmenn og Konur.

50, Sijdan foor AbiMelech til Thebez, og settist um hana, og vann hana.

51. Enn par var einn fastur Turn midt j Borgenne, pangad flwdu aller menn og Kvinnur, og aller peir Borgar-Menn sem j Stadnum voru, og luktu Dyrnar epter sier, og stigu sijdann upp a Paked Turnsins.

52. Pa kom AbiMelech ad Turnenum, og strijdde a hann, og hann gieck ad Dyronum a Turnenum, til ad uppbrenna Turnenn med Ellde,

53. Enn ein Kvinna kastade einu Kvarnarsteins brote j AbiMelechs Hofud, og braut hans Hausskiel j sundur.

54. Pa kallade AbiMelech sem skiotast sinn Skialldsvein, og sagde til hans, Drag wt pitt Sverd, og sloa mig jhel, so ad ei skule segiast um mig, Ein Kvinna deydde hann, pa stack hans Sveirn hann j giegnum, og hann deyde.

55. Enn sem peir Israelitar, sem voru med honum, soau, ad AbiMelech var daudur, pa gieck hvor til sijns Stadar.

56. So bitalade GUD AbiMelech pad ed vonda sem hann hafde giort sijnum Fodur, par hann drap sijna Siotijge Brædur.

57. Somuleidis liet GUD allt pad hid vonda

da sem Sichems Menn hofdu giort, koma
uppa þeirra Hofud, og forbæner Jotham,
Sonar JerubBaal, komu yfer þa.

## X. Capitule.

Um Israels Domara (I) Thola; (II) Jair; (III) Israels Born verda plaagud af Philistæum fyrer saker sinnar Afguda Dijrdkunar.

I. Epter AbiMelech took Thola sig upp
ad hiaalpa Israel, einn Madur af
Isaschar, Sonur Pua, Sonar Dodo,
Og hann bioo j Samir, a Fiallbyggdum E-
phraims,
2. Og hann dæmde Israel j Þriu og Tut-
tugu Aar, og hann andadest, og var grafenn
j Samir.
II. 3. Epter hann uppreis Jair, einn af Gi-
lead, og dæmde Israel i Tvo og Tuttugu Aar.
4. Hann aatte Þriatijge Sonu, hvorier
ad ridu aa Þriatijge Asna Folum. Og hafde
Þriatijge Stade, hvorier ad kolludust Jairs
Þorp, allt til þessa Dags, og liggia j Gi-
lead.
5. Og Jair doo, og var grafenn j Kamon.
III. 6. Israelis Born giordu frammveigs
Illt fyrer DROTTni, og þionudu Baalim,
og Astharoth, og þeim Afgudum j Syria, og
þeim Skurgodum j Zidon, og Moabs Gu-
dum, og Ammons Barna Gudum, og Phi-
listeanna Gudum, og yfergaafu DROttinn,
og þionudu honum ecke.
7. Þa uppkveiktist Reide DROTTins
yfer Israel, og hann gaf þa under Hond
þeirra Philisteanna, og Ammons Barna.
8. Og þeir þvijngudu og plaagudu Israelis
Born, fra þvi aare, j aatian Aar samfelld, ein-
kum sem ad voru oll Israelis Born hinumei-
genn Jordanar, j Lande þeirra Amorita, sem
ad liggur j Gilead.
9. Þar med fooru Ammons Born yfer um
Jordan, og heriudu aa Juda, BenJamin, og
aa Ephraims Hws, svo ad Israel þreyng-
dest hardla miog.
10. Þa kolludu Israelis Born til DRot-
tins, og sogdu, Vier hofum misgiort ijmote
þier, þviad vier hofum yfergiefed vorn Gud,
enn þionad Baalim.
11. Þa sagde DROTTinn til Israelis
Barna, Hafa ecke Egyptar, þeir Amoritar,
Ammons Born, þeir Philistear,
12. Þeir Zidonitar, þeir Amalechitar, og
Maonitar þvijngad ydur? Og Eg hiaalpade
ydur af þeirra Hondum, þa þier kolludud til
mijn,
13. Þo hafed þier samt sem aadur yfergiefid
mig, og þionad annarlegum Gudum. Þvi
vil eg ecke framarmeir hiaalpa ydur,
14. Helldur farid og akallid þa Gudde sem
þier hafid utvalid ydur, laatid þa hina somu
hiaalpa ydur j ydar hriggdar Tijd.
15. Þa sogdu Israelis Born til DROt-
tins, Vier hofum syndgast, gior þu þad allei-
nasta til vid oss sem þier er þægelegt, enn frelsa
þu oss nu ad eins aa þessare Tijd.
16. Og þeir kostudu fraa sier annarlegum
Gudum, og þientu DROTTNI. Og
hann aumkvade sig yfer ad Israel var svo
plaagadur.
17. Og Ammons Born voru samankollud,
og settu sijnar Herbwder j Gilead, enn Isra-
elis Born sofnudust saman, og settu Herbw-
der j Mizpa.
18. Og þeir ædstu medal Folksins j Gilead
sogdu hvor til annars, Hvor sem first vekur
Strijd vid Ammons Born, sa skal vera
Hofuded yfer ollum þeim sem bwa j Gilead.

## XI. Capitule.

Um Jephtah Domara.

Jephthah,* eirn Gileadite, var eirn Strijds-
kappe, enn var laungietenn, og Gilead
hafde aatt Jephthah. * Ebr. 11, 32.
2. Enn sem Gileads Kvinna fædde honum
Born, og sem Born somu Kvinnu voru
vaxenn, þa raaku þau Jephthah wt, og sogdu til
hans, Eige skalltu taka Arf j vors Fodurs
Hwse, þvi þu ert af annarlegre Kvinnu fæd-
dur.

3. Pa flyde hann fraa sijnum Brædrum, og bioo j þvi Lande Tob, drifu þa til hans Umhleypingsmenn, og droou vt med honum.

4. Og nockrum Stundum þar epter herjudu Ammons Born aa Israel.

5. Þegar Ammons Born strijddu nu so vid Israel, þa fooru Olldungar af Gilead af Stad, ad sækia Jephthah, j Landed Tob,

6. Og sogdu til hans, Kom og vert vor Hofuds-Madur, svo ad vier gietum halldед Bardaga vid Ammons Born.

7. Enn Jephthah svarade Olldungum af Gilead, Erud þier ecke þeir enu somu sem mig hata, og hafed vtreked mig af mijns Fodurs Hwse, og nu komed þier til mijn, þvi þier erud nu j neyd stadder?

8. Olldungar af Gilead sogdu til Jephthah, Þvi komum vier nu til þijn aptur, ad þu farer med oss, og veiter oss Stirk ad beriast jmoote Ammons Bornum, og ad þu siert vort Hofud yfer ollum þeim sem bwa j Gilead.

9. Jephthah sagde til Olldunganna af Gilead, Ef ad þier sæked mig nu aptur, ad eg skule beriast vid Ammons Born, og ef Drottinn giefur þau under mig, skal eg þa verda ydart Hofud?

10 Olldungarner af Gilead sogdu til Jephthah, DROTTinn vere til-heyrande j millum vor, ef vier giorum ecke so sem þu hefur sagt.

11. So gieck Jephthah med þeim Olldungum af Gilead, og Folked sette hann til Hofuds og Hofdingia yfer sig. Og Jephthah talade allt þetta fyrer DROTTni j Mizpa.

12. Pa sende Jephthah Bod til Kongs Ammons Barna, og liet seigia honum, Hvad hefur þu med mig, ad þu kiemur til mijn ad heria aa mitt Land?

13. Ammons Barna Kongur svarade Jephthah Sendemonnum, Sokum þess ad Israel hefur teked under sig mitt Land, þa þeir fooru af Egyptalande, fra Arnon, og allt til Jabok, og jnntil Jordan, so gief mier þad nu aptur med Fride.

14. Enn Jephthah sende enn aptur Bod til Ammons Barna Kongs,

15. Þeir sogdu til hans, so seiger Jephthah, Israel hefur eckert Land tekid, hvorke fra þeim Moabitum, og eige fra þeim Ammons Bornum.

16. Þviad þa þeir fooru af Egyptalande, þa ferdadist Israel j giegnum Eydemork, til þess Rauda Hafs, og kom til Kades,

17. Og sende Bod til Kongsins þeirra Edomita og sagde, Laat mig fara j giegnum þitt Land. Enn Edomita Kongur villde ecke heyra þa. Þeir sendu og so til Kongsins af Moab, hann villde og ecke helldur. So var Israel j Kades,

18. Og gieck j Eydemorkenne, og ferdadest j kring um Land þeirra Edomita og Moabita, og komu Austann ad Moabita Lande, og sette sijn Landtiolld hinumeigenn Arnon, og komu ecke j Moabita Landamerke, þvi Arnon er Moabitanna Landamerke.

19. Og Israel sende Bod til Sihon, Amorita Kongs, j Hesbon, og liet seigia honum, Laat oss ferdast j giegnum þitt Land, allt til mijns Stadar.

20. Enn Sihon villde ecke trwa Israel til ad ferdast j giegnum sijn Landamerke, helldur safnade hann ad sier ollu sijnu Folke, og lagde sig j Jahza, og bardist vid Israel.

21. Pa gaf DROTTinn Israels Gud Sihon, og allt hans Folk, j Israels Hendur, so ad þeir slou þa. So jnntook Israel allt Land þeirra Amoritarum, sem j þvi sama Lande biuggu,

22. Og þeir jnntoku oll Landamerke Amoritanna, fra Arnon, jnn til Jabok, og fra Eydemorkenne, og allt til Jordan.

23. So hefur nu DRottinn Israels Gud vtdrifid Amoritana fyrer sijnu Folke Israel, og þo villtu jnntaka þa?

24. Þu skyllder jnntaka þa sem þinn Gud Camos vtrymdu, enn laata oss eignast þa alla sem DROTTINN vor Gud hefur vtdrifed fyrer oss.

25. Eda meinar þu, ad þu hafer betra Riett enn Balach, Son Zipors, Moabita Kongur?

26. Hefur hann nockurn Tijma œtaled, eda fært Strijd œ moote Jsrael? Enn þo ad Jsrael hafe nu bwed Þriu Hundrud Aar * j Hesbon, og hennar Dætrum, j Aroer, og hennar Dætrum, og j þeim øllum Borgum sem liggia hia Arnon? Hvar fyrer fridudud þier ecke þad œ þeim sama Tijma?

* [Þesse 300 Aar byriast fra þvi, þegar Folked gieck ut af Egyptalande, under Mose, og endast sex œrum ꝏdur enn Jephthah stiornade.]

27. Eg hefe ecke misgiort vid þig, enn þu giorer svo jlla vid mig, ad þu strijder œ mig. DROTTINN dæme j Dag a millum Jsrael og Ammons Barna.

28. Enn Ammons Barna Kongur heyrde ecke Rædu Jephthah, sem hann sende til hans.

29. Þa kom Ande DRottins yfer Jephthah, og hann ferdadest j giegnum Gilead, og Manasse, og j giegnum Mizpe, sem liggur j Gilead, og fra Mizpe, sem liggur j Gilead, moot Ammons Bornum.

30. Og Jephthah hiet DRottni einu Heite, og sagde, Ef þu giefur Ammons Born j mijnar Hendur,

31. Hvad sem first kiemur jmote mier wt af mijnu Hwse, þa eg kiem heim aptur med Fride, fra Ammons Bornum, þad skal heyra Drottni til, og þad vil eg offra til Brennefoornar.

32. Sijdann foor Jephthah mote Ammons Bornum, ad hallda Bardaga vid þa. Og DROTTinn gaf þa j hans Hendur,

33. Og hann sloo þa fra Aroer, og allt til Mann kiemur til Minnith, Tuttugu Borger, og allt til Vijnvidar Sliettlendisins, eitt miøg stoort Slag. Svo urdu Ammons Born audmykt fyrer Jsraelis Bornum.

34. Enn sem Jephthah kom j sitt Hwს til Mizpa, sioa, þa gieck hans Dotter wt jmoote honum med Bumbum og Danse, og hun var hans Einberne, og hann ætte annars hvorke Son nie Dottur.

35. Og sem hann sœ hana, þa reif hann j sundur sijn Klæde, og sagde, Oho, Mijn Dotter, (a) hvad beygér þu mig, og hrellér mig, þvi eg uppliet minn Munn til DROttins, og eg giet þad ecke tekid aptur.

(a) (Læckar.) GUd hafde miøg upphafed mig med þessum Sigre, so eg mœ upphefia mitt Høfud med Gledi, enn þu beyger mig, so eg mœ hneigia mitt Høfud nidur, med stoorn Hiartans Angre, og umsnua so þessum mikla Fagnadi til diuprar Hiartans Angistar.

36. Hun svarade, Minn Fader, Hafer þu upploted þinn Munn fyrer DRottni, þa gior vid mig so sem þad er frammgeinged af þijnum Munne, first DRottinn hefur hefnt þijn a þijnum Ovinum, Ammons Bornum.

37. Enn hun sagde til sijns Fodurs, Gior mier þo þad til Vilia, ad þu giefer mier tveggia Mœnada frest, ad eg meige ganga hier fra nidur, uppa Fialled, ad grœta minn Meydom, med mijnum Leiksystrum,

38. Hann sagde, Far af stad, Og hann gaf henne tveggia Mœnada frest. Sijdann gieck hun j burt med sijnum Leiksystrum, og griet sinn Meydom a Fiallenu.

39. Og tveim Mœnudum þar epter kom hun til sijns Fodurs aptur, og hann giorde henne sem hann hafde (b) heited, Hun hafde alldrei kiennt nockurn Mann. Og þad vard eitt Sidvane j Jsrael.

(b) (Heited) Sumer meina, ad hann hafe ecke offrad henne, enn Textenn stendur hier klaar þar um, sø sioa Menn, bæde a Domurunum, og Kongunum, ad þeir, epter stoor Mikil-Virke hafa og giørt stor Heimsku Þor, so ad Mann meige taka sier vara fyrer þeirre leidu Drambseme.

40. Ad Jsraels Dætur geingu œrlega Aars j burt ad grœta Dotter Jephthah Gileadita, j fiora Daga a hvoriu Aare.

## XII. Capitule.

(I) Ephraims Osigur. (II) Um þa Domara j Jsrael, Ebzan; (III) Elon; og (IV) Abdon.

I. Og þeir af Ephraim voru samankallader, og gengu j mot nordre, og søgdu til Jephthah, Þvi forst þu j Strijd a moot Ammons Bornum, og kallader oss ecke, so

ad vier færum med þier? Vier vilium upp-
brenna þig og þitt Hws med Ellde.

2. Jephthah sagde til þeirra, Eg og mitt
Folk hofdum eina stora þrættan vid Ammons
born, og eg kallade ydur, enn þier veittud
mier ecke Fullting af þeirra Hondum.

3. Og sem eg sa nu, ad þier villdud ecke
Fullting veita, þa sette eg mijna Saal j mij-
na Hond, og foor eg so a moot Ammons
Bornum, og DROTTinn gaf þa i mij-
na Hond, þvi komed þier nu hier upp til
mijn, ad strijda a moote mier?

4. Og Jephthah safnade samann ollum
Monnum j Gilead, og bardest vid Ephraim,
Og þeir Menn j Gilead sloou Ephraim, þvi
þeir hofdu sagt, Þier Gileads Menn erud þo
a medal Ephraim og Manasse, so sem (a)
Flootta Menn j Ephraim.

(a) (Flootamenn) þeir sem flwdu j Ephraim j Hæska, sier til Hiaalpar, þier frijudud oss ecke, helldur vier ydur, þier Flootta menn, þvi vier erum Konglegt Slegte.

5. Og þeir Gileads Menn juntoku oll
Wod a Jordan fyrer Ephraim. Þa þeir
Flootta Menn af Ephraim nu sogdu. Laat
mig fara hier yfer um, þa sogdu Gileads
Menn til hans, Ert þu eirn af Ephraim?
Sem hann þa svarade, Nei,

6. Þa baadu þeir hann ad seigia, Schi-
boleth, Enn hann sagde Sibboleth, og gat ecke
nefndt þad riett, so gripu þeir hann, og sloou
hann j hel hiaa Jordans Vade, So þar fiellu
j þann tijma af Ephraim Tvær og Fiortij-
ge Þusunder.

7. Enn Jephthah dæmde Israel j Sex
Aar. Og Jephthah af Gilead andadest, og
var grafenn j Stadnum j Gilead.

II. 8. Epter hann dæmde Israel Ebzan af
Bethlehem,

9. Hann atte þriatiju Sonu, og þriatij-
ge Dætur gaf hann wt, og hann tok ad utann
þriatijge Dætur til sinna Sona.

10. Og hann var Domare yfer Israel j
Sio Aar. Og deyde, og var grafenn j Beth-
lehem.

III. 11. Epter hann var Domare j Israel
Elon, eirn af Sebulon, og hann var Do-
mande yfer Israel j Tiju Aar,

12. Og andadest, og var grafenn j Aialon,
j Lande Sebulon.

IV. 13. Epter hann dæmde Abdon, son Hil-
lels Israel, eirn Pireathonite,

14. Hann atte Fiorutijge Syne, og Þria-
tijge Sona born, hverier ad ridu a Siotijge
Asnafolum, og hann dæmde Israel j atta
Aar,

15. Og hann andadest, og var jardadur
j Pireathon, j Lande Ephraim, a Fialle þeirra
Amalekita.

## XIII. Capitule.

(I) Hversu ad Samson er getinn; og (II) Fæddur.

I. Og Israels Born giordu enn framar
Illt fyrer DROttni, Og DROttinn
gaf þa j Philisteanna Hendur j Fiorutijge
Aar.

2. Enn þar var eirn Madur j Zarea, af
Ætt Dans, sem hiet Manoah, og hans
Kvinna var Obiria, so hun atte ecke Born.

3. Og Eingell DROTTins birtest Kvin-
nunne, og sagde til hennar, Sia, þu ert
Obiria, og fæder ecke, Enn nu skalltu verda
Kvidug, og fæda eirn Son.

4. So vara þig nu, ad þu drecker ecke
Wijn, nie nockurn sterckann Drick, og so
ad þu eter eckert ohreint,

5. Þviad þu skallt oliett verda, og eirn
Son fæda, a hvors Hofud eingenn Rakstur
knijfur skal koma, þviad þesse Sveirn-skal
vera (a) Nazareus Guds, fra sinnar Modur-
kvide, og hann skal uppbiria ad frelsa Israel
af Philisteanna Hende.

(a) Nasir, Num. 6, 5.

6. Þa for Konann, og kunngiorde þetta
sijnum Bonda, og sagde, Þar kom eirn
Guds Madur til mijn, og hans Mind var
ad sia sem Guds Eingils, miog ognarleg,
so ad eg spurde hann ecke ad, hvadann hann
kom,

kom, eda hvort hann villde, og eige sagde hann mier sitt Heite.

7. Hann sagde til mijn, Sioa, þu skallt verda þungud, og fæda eirn Son, Þar fyrer drecktu ecke Vijn, nie afeingann Drick, og et ecke neitt Ohreint, þviad Sveirnenn skal vera Guds (b) Nazareus, fra Modurlijfe, allt til sins Dauda.

(b) (Nazareus) þad er, heilenn, og Helgadur Gude.

8. Pa bad Manoah DROTTinn, og sagde, Heyr DROTTinn, Lat þann Guds Mann koma til vor aptur, þann þu sender, so hann meige undervijsa ockur, hvernenn vid skulum fara med þetta Barn sem fædast skal.

9. Og Gud heyrde Raust Manoah, og Guds Eingell kom til Kvinnunnar j odru sinne, enn hun sat a Akre. Og hennar Bonde Manoah var ecke hioa henne,

10. Pa rann hun sem skiotast, og kunngiørde þad sijnum Bonda, og sagde til hans, Sioa, sa Madur birtest mier sem til mijn kom j Dag.

11. Manoah spratt upp þegar, og gieck epter sinne Konu, og kom til Mannsins, og sagde til hans, Ert þu sa Madur sem talader vid Kvinnuna? Hann sagde, Jaa,

12. Og Manoah sagde, Þegar þad fullkomnast sem þu hefur sagt, Hvoria frammferd og Idiu skal þesse Sveirn hafa?

13. DROTTins Eingell sagde til Manoah, Hann skal taka sier vara fyrer ollu þvi sem eg hefe sagt Kvinnunne,

14. Hann skal og eckert eta þad sem af Vijnvid kemur, og eige skal hann drecka Vijn, nie nockurn annann sterkann Drick, og eckert ohreint eta, Allt þad sem eg hefe boded henne, þad skal hann hallda.

15. Manoah sagde til DROTTins Eingels, Lat oss hallda þier, vier vilium offra fyrer þier einu Hafur-kide,

16. Enn Eingell DROTTins svarade Manoah, Þo þu hallder mier hier, þa et eg þo ecke af þijnum Mat, Enn ef þu villt giora DROTTni eitt Brenneoffur, þa maattu offra þvi, Þvi Manoah visse ecke, ad þad var DROTTins Eingell.

17. Og Manoah sagde til DROTTins Eingels, Hvad heiter þu, so vier meigum prijsa þig, þegar þad er framm komed sem þu hefur sagt?

18. Eingell DROTTins svarade honum, Þvi spyr þu ad mijnu Heite, sem þo er Undarlegt.

19. Pa tok Manoah eitt Hafur-kid, og Matoffur, og offrade þetta fyrer DROTTni yfer einum Steine, og hann giorde þad (c) undarlega. Enn Manoah og hans Kvinna horfdu a.

(c) Þad gieck furdulega til, svo sem eptirfilger, ad Eingellenn hvarf, og foor upp j Logann.

20. Og þa Logann lagde upp af Alltarenu, upp j Himenenn, þa foor Guds Eingell upp j Loganum af Alltarenu. Enn sem Manoah og hans Kvinna saau þad, fiellu þau bæde framm til Jardar a sijnar Asionur.

21. Og Eingell DROTTins opennberadest ecke meir fyrer Manoah, nie hans Kvinnu. Pa understood Manoah, ad þetta var Eingell DROTTins,

22. Og hann sagde til sinnar Kvinnu, Vid munum vissulega deya, þviad vid saaum Gud.

23. Enn hans Kvinna svarade honum, Ef DROTTinn hefde haft gyrnd til ad deyda ockur, þa hefde hann hvorke teked Brennefoorn nie Matoffur af ockar Hondum, Hann hefde og ei kunngiort ockur allt þvilijkt, og ei lated ockur heyra soddann sem nu er skied.

II. 24. Og Kvinnann fædde eirn Son, og nefnde hann * Samson. Og Sveirnenn ox upp, og DROTTinn blessade hann.

* Ebr. 11, 32.

25. Og DROTTins Ande tok ad frama hann j Herbwdum Dan, millum Zarea og Esthaol.

# XIV. Capitule.

(I) Samsons Hreyste mote þvi unga Leone; og (II) Hans Raadgaata.

I. Samson gieck ofann til Thimnath, og saa þar eina Kvinnu j Thimnath, a medal Philisteanna Dætra,

2. Og sem hann kom upp, þa kunngiorde hann þetta sijnum Fodur, og sinne Modur, og sagde, Eg hefe sied eina Kvinnu j Thimnath, medal Dætra Philisteanna, Giefed mier nu þa enu somu til Eigennkonu.

3. Hans Fader og Moder sogdu til hans, Er þa nu eingenn Kvinna a medal þinna Brædra Dætra, og hiaa ollu þijnu Folke, ad þu villt fara þangad, og faa þier Eigennkvinnu, hiaa Philisteum, sem eru oumskorner? Samson svarade sijnum Fodur, Laat mig faa þessa, þvi hun þocknast mijnum Augum.

4. Enn hans Fader og Moder vissu ecke, ad þetta var af DRottni, þvi hann leitade Ordsakar vid Philisteana. Þviad þeir Philistei Drottnudu j þann tijma yfer Israel.

5. Þa gieck Samson med sijnum Fodur, og sinne Modur, ofann til Thimnath. Og sem þau komu ad Thimnaths Vijngarde, Sia, þa kom eitt ungt Leon, oskrande, a moot honum,

6. Og Guds Ande kom yfer hann, og hann sundursleit þad, so sem þa Madur j sundurslijtur eitt Hafur-kid, og hafde þo alls eckert j sinne Hende, Og eige sagde hann sijnum Fodur nie Modur fra þessu, hvad hann hafde giort.

7. Enn sem hann nu kom ofann, talade hann vid Kvinnuna, og hun þocknadest Augum Samsonar.

8. Og nockrum Dogum þar epter kom hann aptur ad Egta hana. Og hann gieck af Veigenum, ad sia Leons hræd, og sia, þar var Bislyge j Leons hrænu, og Hunang.

9. Og hann took þad j sijna Hond, og aat þar af a Veigenum, og gieck til sijns Fodurs, og sinnar Moodur, og gaf þeim þar af, ad þau og so aatu, enn hann sagde þeim ecke fra, ad hann hafde teked Hunanged af Leons Hrænu.

II. 10. Og nu sem hans Fader kom ofann til Kvinnunnar, þa giorde Samson sitt Brudkaup þar, so sem hvattur var til ungra Manna.

11. Og sem þeir saau hann, gaafu þeir honum þriatiju Lagsmenn, sem hiaa honum skylldu vera.

12. Enn Samson sagde til þeirra, Eg mun bera upp fyrer ydur eina Gaatu, sie þad so, ad þier gieted leyst hana, og hitt þar uppa a þessum Sio Brullaups Dogum, þa skal eg giefa ydur Þriatiju Skirtur, og Þriatiju Haatijdar Klæde.

13. Enn ef þier gieted ecke leyst hana, þa skulud þier giefa mier Þriatiju Skirtur, og Þriatiju Hatijdar Klæde, þeir svorudu honum, Ber þu upp þijna Gaatu, og laat oss heyra hana,

14. Hann sagde þeim, Matur foor ut af Etanda, og Sætleike af þeim Sterka. Og þeir gaatu ecke raaded þessa Gaatu j Þria Daga.

15. A þeim Siounda Deige sogdu þeir til Samsons Kvinnu, Locka þu af Bonda þijnum ad hann seige oss þessa Gaatu, ellegar skulum vier brenna þig og þijns Fodurs Hws med Ellde, hafed þier til þess jnnboded oss, ad þier vilied utarma oss, eda eige?

16. Þa griet Samsons Kvinna fyrer honum, og sagde, Þu hatar mig, enn elskar ecke, þu hefur bored upp eina Gaatu fyrer Bornum mijns Folks, og ecke skijrt mier hana. Hann svarade henne, Sia, eg hefe ecke sagt mijnum Fodur, og eige minne Modur þad, og skyllde eg seigia þier þad?

17. Og hun griet fyrer honum þa Sio Daga, a medann Brudkauped stood yfer, enn a þeim Siounda Deige sagde hann henne þad, þvi hun þreyngde honum þar til, og hun sagde Bornum sijns Folks Gaatuna.

18. Þa mælltu Borgarmenn til hans a

þeim Siounda Deige, ꜳdur enn Solenn
gieck nidur, Hvad er sætara enn Hunang?
Eda hvad er sterkara enn Leon? Pa sagde
Samson til þeirra, Hefdud þier ecke ared til
med minne Kvijgu, þa hefdud þier ecke gietad
rꜳded Gꜳtu mijna.

19. Og Ande DROttins kom yfer hann,
og hann gieck ofann til Asklon, og drap Pria-
tijge Menn af þeim, og tok þeirra Klædnad,
og gaf þeim Hꜳtijda Klæde sem riedu hans
Gꜳtu. Og hann vard ꜳkaflega reidur, og
foor upp til sijns Fodurs Hwss.

20. Enn Samsons Kvinna var gipt einum
hans Stallbrædra, sem honum tilheyrde.

## XV. Capitule.

Samson giører Philisteum Skada (I) med nockrum Refum; (II) Med einum Asna Kialka.

I. Og þad skiede so, epter nockra Daga, a Hveite Kornskurdartijmanum, ad Samson foor ad vitia sinnar Kvinnu, og hafde med sier eitt Hafurkid. Og sem hann þeinkte, Eg vil ganga j Herberged til Konu minnar, þa villde ecke hennar Fader leyfa honum þar jnn,

2. Og sagde, Eg ætlade ad þu munder heñe ordeñ reidur, og þvi gipta eg hana þijnum Vin. Enn hun hefur adra yngre Syster, sem frijdare er enn hun, lꜳt hana verda þijna, fyrer þessa.

3. Samson sagde til þeirra, Eg hefe nu einu sinne feinged rietta Sok a moote Philisteum, eg vil giora ydur Skada.

4. Og Samson gieck þadann, og veidde Priu Hundrud Refa, og hann took sier Elldskijd, og snere tilsamans einum hala til annars, og batt eitt Elldskijd a millum hvorra Tveggia Hala.

5. Og kveikte Elld j þeim, og sleppte þeim lausum j Korn Philisteanna, og uppbrennde þeirra Bindene, og so þad standanda Korn, og þeirra Vijngarda, og Vidsmiors Trie.

6. Pa sogdu Philistei, Hvor hefur giørt þetta? Pa var þeim sagt, Samson Dotturmadur hans j Thimnath, fyrer þad, ad hann tok hans Hwstru, og gaf hana hans Vin. Pa fooru Philistei upp þangad, og uppbrenndu hana, og hennar Fodur med Ellde.

7. Enn Samson sagde til þeirra, Enn þo ad þier hafed þetta giort, þa vil eg sem ꜳdur hefna mijn sialfur a ydur, og lꜳta af sijdann.

8. Og hañ sloo þa hardlega bæde ꜳ (a) Herdar og Lendar. Og hann foor ofann, og bioo j eirnre Biargskoru j Etam.

(a) (Herdar og Lendar) þad er, hann slo alla þa sem hann hitte, hærre Stiettar sem lægre.

9. Pa fooru Philistei upp og settust um Juda, og settu Herbwder sijnar j Lehi.

10. Enn þeir af Juda sogdu, Pvi erud þier hier uppkomner jmoote oss? Peir svorudu, Þess erindis erum vier hingad komner, ad binda Samson, ad giora vid hann sem hann hefur giort oss.

11. Epter þad foru Priar Pusunder Manna af Juda ofann til Biargskorunnar j Etam, og sogdu til Samson, Veitstu ecke ad Philistei Drottna yfer oss? Pvi hefur þu þa so breitt vid oss? Hann sagde til þeirra, So sem þeir giordu vid mig, so hef eg giort vid þa aptur.

12. Og þeir sogdu til hans, Vier erum komner hier ofann, ad binda þig, og selia þig j Hendur Philisteum. Samson sagde til þeirra, Pa sveried mier Eid, ad þier vilied ecke yfersalla mig.

13. Peir svorudu honum, Eige vilium vier yfersalla þig, helldur vilium vier ad eins binda þig, og giefa þig so j þeirra Hendur, enn ei vilium vier slꜳ þig jhel. Sijdann bundu þeir hann med Tveimur Reipum nyum, og fluttu hann burt af Biargenu.

II. 14. Enn sem hann kom til Lehi, hlaupa Philistei þegar jmoote honum med Fagnade, Enn Ande DROTTINS kom yfer hann, og Reipenn af hans Armleggium urdu sem Prꜳdur brunnenn j Ellde, so ad slitnudu þau Bond sem voru a hans Hondum.

15. Og hann fann eirn fwenn Asna Kialka, og wtriette sijna Hond, og tok hann, og sloo med honum Pusund Manna.

16. Og Samson sagde, Par liggia þeir j

Hrwgu,

Hrwgu, med einum Asnakicalka hef eg sleged Þusund Menn.

17. Og sem hann hafde þad sagt, kastade hann Kicalkanum wt sinne Hende, og kallade þann Stad (b) Ramath Lehi.

(b) (Ramath Lehi) kallast uidurkast Kicalkans, Akallarans Brunnur.

18. Enn þa hann þyrste miog, kallade hann til DROTTins, og sagde, Þu hefur giefed þessa miklu Heilsu fyrer Hond þijns Þienara, enn nu hlyt eg ad deya af Þorsta, og falla j Hendur oumskorenna Manna.

19. Þa klauf GUD einn Jaxl j Asnakicalkanum, so þar spratt wt af Vatn. Og sem hann drack, þa kom Ande hans aptur, og hann vard endurnærdur aptur; þar fyrer kallast hann enn nu a þessum Deige, Akallarans Brunnur, sem vard j Kicalkanum.

20. Og hann dæmde Jsrael a Dogum Philisteanna j Tuttugu Aar.

## XVI. Capitule.

(I) Hversu ad Samson geck til Einnar Skiækiu; (II) Olucka sem honum villde til hica Einne Skiækiu; og (III) Um hans Dauddaga.

I. Samson gieck j burt til Gasa, og sca þar eina Skiækiu, og gieck jnn til hennar,

2. Þa var þad sagt þeim Borgarmonnum j Gasa, Samson er komenn hier jnn, og þeir umkringdu hann, og lietu sitia um hann alla Nottena, j Stadarportenu, enn voru kirrer um alla Nottena, og sogdu, Verum kirrer, a Morgun strax ad birter, þa vilium vier slca hann jhel.

3. Samson svaf til midrar Nætur, Sijdann stood hann upp ad midre Nottu, og took bcadar Hurdernar a Stadar Portenu, med bcadum Dyrastolpunum, og lypte þeim upp med Slagbrondunum, og lagde a sijnar Herdar, og bar þær efst uppa Fialled fyrer Hebron.

4. Og epter þetta lagde hann cast vid eina Kvinnu, hica þeim Læk Sorek, su nefndest Dalila.

5. Upp til hennar komu Hofdingiar Philistinorum, og sogdu henne, Yfertala þu hann, og skoda hvar j hann hefur so mikenn Stirkleika, og med hvoriu moote ad vier meigum sigra hann, so vier fcaum bunded hann, og þvingad, þa vilium vier giefa þier, hver um sig, Þusund og Hundrad Silfurpeninga.

6. Dalila sagde til Samsons, Minn Kiære, Seig þu mier j hvoriu falenn er þinn mikle Stirkleike, og med hvoriu þig ma binda, so þu verder þvingadur.

7. Samson svarade henne, Ef eg er bundenn med Sio Lijnstreingium nyum, ecke enn upp þornudum, þa yrde eg veikur, og være so sem annar Madur.

8. Þa færdu Hofdingiar Philisteanna Sio Lijnstreinge nya upp til hennar, sem ei voru enn þurrer, og hun batt hann þar med.

9. Enn þeir toku leynelega vara a honum, j Herbergenu hica henne, og hun sagde til hans, Philistei yfer þig Samson. Enn hann rickte j sundur Streingiunum, sem þa Hortygell fer j sundur, þa hann kienner Ellds, og vissest ecke hvar j hans Stirkleike være.

10. Þa sagde Dalila til Samsons, Sica, þu hefur gabbad mig, og loged ad mier. Seig mier nu þo, med hvoriu þig meige binda?

11. Hann svarade henne, Ef þeir binda mig med nyum Reipum, sem til ongrar vinnu hafa hofd vered, þa verd eg ostirkur, og sem eirn annar Madur.

12. Þa tok Dalila ny Reip, og batt hann þar med, og sagde, Philistei yfer þig Samson (enn þeir toku leynelega vara a honum j Herbergenu) og hann sleit þau af sijnum Hondum sem Þrcad.

13. Enn Dalila sagde til hans, Þu hefur enn nu gabbad mig, og loged ad mier. Kiære, seig mier þo, hvar med þig meige binda? Enn hann svarade henne, ef þu saman flettar mijna Sio Hofudlocka med einum Hcardreigle,

14. Og fester þa vid Hæl. Og hun sagde til hans, Philistei yfer þig Samson. Og hann vaknade af sijnum Svefne, og rickte upp

upp sijnum fliettudum Lockum med Hælnum, og Hoardreiglenum,

15. Þa sagde hun til hans, Hvornenn mœattu seigia ad þu hafer œst a mier, þar þitt Hiarta er ei med mier? Þrisvar reisur hefur þu nu gabbad mig, og ecke sagt mier j hvorju þitt mikla Afl folged være.

II. 16. Og sem hun naudade a honum med sijnum Ordum, Dag fra Deige, og plœgade hann, mæddest Sœal hans allt til Dauda,

17. Og hann liet henne j liose allt sitt Hiarta, og sagde til hennar, Alldrei hefur Hoarhnijfur komed a mitt Hofud, þvi eg er Guds (a) Nazareus fra Modurkvide. Ef þu rakader mier, þa hvirfe minn styrkur fra mier, ad eg yrde ostirkur, og so sem aller adrer Menn.

(a) (Nazareus) þad er, Gude helgadur.

18. Enn sem Dalila sœa nu, ad hann hafde birt henne allt sitt Hiarta, þa sende hun, og liet kalla a Hofdingia Philistinorum, og seigia, Komed nu enn um sinn upp hingad, þviad hann hefur nu birt mier allt sit Hiarta. Þa komu Philisteanna Hofdingiar upp til hennar, og hofdu med sier Fie j sinne Hende

19. Og hun liet hann sofa a sijnu Skaute, og kallade eirn til sijn, sem hans sio Hofud locka rakade. Og hun tok til ad þvinga hann, þa var horfenn fra honum hans Styrkleike.

20. Og hun sagde til hans, Philistei yfer þig Samson. Enn sem hann nu uppvaknade af sijnum Svefne, hugsade hann, Eg mun ganga vt, sem eg hefe œdur opt giort, og slijta mig lausann, Og hann visse ecke ad DRottinn var vikenn fra honum.

21. Enn Philistearner gripu hann, og stungu vt hans Augu, og fluttu hann til Gasa, og bundu hann med tveimur Koparvidium, ad hann skyllde draga Kvern j Mirkvastofu.

22. Enn hans Hofudhoar tooku til ad spretta aptur, þar þau voru afrokud.

III. 23. Enn þa Hofdingiar Philistinorum sofnudust samann, ad giora miked offur sijnum Gude Dagon, og sig glada ad giora, þa sogdu þeir, Vor Gud hefur giefed oss vorn Ovin Samson j vorar Hendur.

24. Somuleidis, þa Alþydu Folked sœa hann, lofudu þeir þeirra Gud, þvi þeir sogdu, Vor Gud hefur giefed vorn Ovin j vorar Hendur, þann sem fordiarfade vort Land, og dreped hefur marga af oss.

25. Og sem þeir voru nu hiartanlega glader, þa seigia þeir, Lœted sækia Samson, so hann leike fyrer oss. Þa toku þeir Samson af Fœangelsenu, og hann liek fyrer þeim, Og þeir settu hann a millum tveggia Stolpa.

26. Enn Samson sagde til þess Ungmennis sem hann leidde vid Hond sier, Lœt þu mig fara ad taka a þeim Stolpum sem Hvœsed stendur a, so eg meige stydia mig vid þa.

27. Enn Hvœsed var alskipad bæde af Monnum og Kvinnum, þar voru j þvi sama sinne samankomner aller Hofdingiar Philisteanna, og uppa þakenu voru nær þriar Pusunder Manns, og Kvinnur, sem horfdu a hvornenn Samson liek.

28. Enn Samson akallade DRottinn og sagde, DRottinn, DRottinn! minnstu mijn, og styrk mig nu, Gud, ad þessu sinne, so ad eg meige um sinn hefna mijn a Philisteis, fyrer mijn bæde Augu.

29. Og hann greip um þa Midstolpa sem j midiu Husenu stodu, uppa hvoria ad allt Hvœsed var sett, og hiellt sier um þa, annann med sinne Hægre, annann med sinne Vinstre Hende.

30. Og sagde, Deye Ond mijn med þeim Philisteis. Og hann hneigde sig kroptuglega, þa fiell Hvœsed ofann a Hofdingiana, og a allt Folked sem þar var jnne, so ad fleyre voru af þeim Dauðu, sem deydu j hans Andloate, enn þeim sem deydu a medan hann lifde.

31. Epter þetta komu hans Brædur ofann þangad, og allt hans Fodurs Hvœs, og toku hann upp, og færdu hann þadann, og groofu hann j sijns Fodurs Manoah Grof, a millum

Zarea, og Esthaol, Hann var Domare yfer Israel j Tuttugu Aar.

## XVII. Capitule.

Moder Micha Lætur Einn Gull Smid giora Eitt utskored og sleypt Bilæte.

Þar var eitt Madur a Fiallbyggdum Ephraim, sem hiet Micha.

2. Hann sagde til sinnar Modur, Þa Þusund og Hundrad Silfurpeninga, sem þu hefur teked til þijn, og (a) svared og sagt fyrer mijnum Eyrum, Sioa, þeir eru somu Peningar eru hioa mier, eg hefe teked þa til mijn. Þa svarade hans Moder, Blessadur sie minn Son DROTTni.

(a) (Svared) Þesse Kvinna mun hafa lofad ad giefa Peninga til eirnrar Lijkneskiu, þad mun syne hennar i firstu ecki hafa lijkad, og hafa þvi stoled fra henne Peningum, enn læted sijdan hennar klögun koma sier til ad skila þeim aptur, og læta giora ur þeim þad hun villdi; þa þetta hafde godann frammgang, so sem þetta plagar ad hafa, þa liet hann sier þad og lynda.

3. Sijdan gaf hann sinne Modur þa Þusund og Hundrad Silfurpeninga aptur. Og hans Moder sagde, Eg hefe helgad DRottni þa Peninga wr minne Hende, fyrer minn Son, so ad þar sie giort af eitt Likneske og Afgud, þar fyrer gief eg þier þa nu aptur.

4. Enn hann gaf sinne Modur þessa Peninga aptur. Þa took hans Moder Tvo Hundrud Silfurpeninga, og fieck þa einum Gullsmid, hann giorde henne eina Likneskn og Skwrgod, og þar epter var þad i Micha Hwse.

5. Og þesse Mann Micha hafde so eitt Guds Hws. Og hann giorde eirn Lijfkyrtil og Helgedom, og fyllte Hendur a einum sijnum syne, so hann var hans Prestur.

6. A þeim tijma var eingenn Kongur j Israel, og hver giorde þad sem honum þotte riett vera.

7. Enn þar var eitt Ungmenne af Bethlehem Juda, a medal Juda Kinþoatta, og hann var eirn Levite, og var þar framande.

8. Hann reiste fra þeim stad Bethlehem Juda, ad ferdast þangad sem hann kunne. Enn sem hann kom uppa Fialled Ephraim, til Hwsa Micha, ad hann fære sinn Veg,

9. Þa spurde Micha hann ad, Hvadann komst þu? Hann svarade honum, Eg er eirn Levite af Bethlehem Juda, og geing þangad sem eg kann.

10. Micha sagde til hans, Vert þu hioa mier, þu skallt vera minn Fader, og minn Prestur, Eg vil giefa þier hvort Aar Tiju Silfurpeninga, og tilskilenn Klædnad, og þijna Fædu, Og Levitenn foor þangad.

11. Og Levitenn gieck þar ad, ad vera hioa Mannenum, og hann hiellt þennann unga Mann lijka sem eirn Son.

12. Og Micha fyllte Levitans Hond, so hann vard hans Prestur, og var so j Micha Hwse.

13. Og Micha sagde, Nu veit eg, ad Drottinn mun giora mier til gooda, first ad eg hefe eirn Levita fyrer Kiennemann.

## XVIII. Capitule.

Þeir Danitar vinna Lais.

A þeim tijma var eingenn Kongur yfer Israel, og Kinkvijsl Dans leitade vid ad umganga sier eina Arfleifd, þar þeir mætti bwa, Þvi þeir höfdu ecke til þessa Dags feinged Erfdahluta a medal Israels Ættkvijsla.

2. Og Dans Born sendu wt (Menn) af sinne Ætt, af sijnum Endemorkum, Fimm Strijdsmenn, af Zarea, og Esthaol, til ad skoda og rannsaka Landed, og sogdu til þeirra, Fared og skoded Landed. Og þeir komu a Fialled Ephraim, til Hwsa Micha, og voru þar um Nott.

3. Enn a medan þeir voru þar hioa Heimelis Folke Micha, þa þecktu þeir þess unga Levita raust, og þeir viku þangad, og sogdu til hans, Hvor hefur fært þig hingad? Og hvad giorer þu hier? Og hvad hefur þu hier?

4. Hann svarade þeim, So og so hefur Micha giort vid mig, og hann hefur leigt mig, ad eg sie hans Prestur.

5. Þeir søgdu til hans, Kiære, Spyr Gud ad, so vier meigum fꝏ ad vita, Hvort þesse vor vegur, sem vier gongum, skal luckast?

6. Presturenn svarade þeim, Fared j burt med Fride, ydar Vegur, sem þierganged, er riettur fyrer DRottni.

7. Sijdan geingu þesser fimm Menn af stad, og komu til Lais, og sꝏu, ad þad Folk sem þar bio var athugalaust, þvilijkast sem þeir Zidoniar, kirrt (a) og ohrædt, og þar var eingenn j Lande sem þeim jllt giørde, eda þeirra Herra være, og þeir voru j fiarlægd vid þa Zidonia, og høfdu eckert ad giora med Folk.

(a) (Kirrt) þeir ꝏttu hvørke ovine nie herra yfer sier.

8 Og þeir komu til sinna Brædra j Zarea, og Esthaol, og þeirra Brædur søgdu til þeirra, Hvorsu geingur ydur? Þeir søgdu,

9. Tokum oss upp og forum upp til þeirra, Þvi vier høfum skodad Landed, þad er miøg gott, Þar fyrer fared sem skiotast, og vered ecke later a þessa ferd, so þier komed ad eignast þad Land. Og sem þier þar komed, munud þier koma til Ugglausra Manna,

10. Enn Landed er bæde vijdt og breidt, og Gud hefur giefed þad j ydar Hendur, Jꝏ, soddann eitt Plats þar eckert vantar, af ollu þvi sem a Jordunne er.

11. Sijdan fooru þar fra af Dans Ættmonnum, af Zarea, og Esthaol, Sex Hundrud Manna bryniader, med sijnum Vopnum, til Bardaga,

12. Og þeir reistu upp, og settu Herbwder j Kiriath Jearim j Juda, þar af kølludu þeir þann stad, Herbwder Dan, allt til þessa Dags, sem liggur til baka vid Kiriath Jearim.

13. Og þeir geingu þadann, og a Fialled Ephraim, og komu til Hwsa Micha,

14. Þa søgdu þeir fimm Menn, sem utgeingner voru ad skoda þad Land Lais, og søgdu til sinna Brædra, Vited þier og, ad j þessu Hwse er eitt (b) Lijkfyrtell, Helgedomur, Likneske, og Skwrgod? Nu meiged þier hugsa ydur um, hvad þier skulud giora.

(b) (Teraphim) Utþydest þad hid Heilaga, Edur Helgedomur, sem ꝏ vorum Dogum voru Trie Guder, Daudra Manna Bein, Daudra Klæde, og annad þvilijkt Helgedoms Skran, sem vai halldid fyrer Guds Þionustu, þvi þesse Glosa er Tvijræd.

15. Þeir viku þar jnn, og komu til Hwss þess Unga Levita, sem var j Micha Hwse, og heilsudu honum vinsamlega,

16. Enn þau Sex Hundrud Manna vopnader med sijnum Harneskium, af Børnum Dan, stodu fyrer Portdyrum wte.

17. Og þeir fimm Menn, sem fared høfdu ad niosna um Landed, fooru upp, og komu þangad, og toku Liknesked, Lijkfyrtelenn, Helgedomenn, og Afgudenn, Enn a medan (þetta skiede) stood Presturenn fyrer Portenu, hiꝏ þeim Sex Hundrudum vopnudum, med þeirra Harneskium.

18. Enn sem þeir adrer voru komner j Micha Hws, og tooku Bilæted, Lijkfyrtelenn, Helgedomenn, og Afgudenn, þa sagde Presturenn til þeirra, Hvad giored þier?

19. Þeir svorudu honum, Þeige þu, og halllt þijnum Munne, og far med oss, so þu siert vor Fader og Prestur. Er þad þier betra, ad þu siert Prestur j eins Manns Hwse, edur a medal heillrar Kinkvijslar og Ættar Israels?

20. Þetta þocknadest Prestenum vel, og hann took bæde Lijkfyrtelenn, Helgedomenn, og Bilæted, og kom j før med Folkenu,

21. Og þa þeir sneru sier, og af Stad fooru, sendu þeir undann sier Børn og Bwsmala, og allt þad sem þeir høfdu Dyrmætt.

22. Og sem þeir komu langt fra Micha Hwse, þa kølludu þeir Menn upp sem voru j Hwsonum, þeim sem stoodu hiꝏ Micha Hwse, og fooru epter Dans Børnum, og kølludu epter Dans Børnum,

23. Enn þeir sneru sijnum Andlitum til Baka, og søgdu til Micha, Hvad er þier, ad þu hroopar so?

24. Hann svarade, Þier hafed teked mijna Gude, þa sem eg hefe giort, og so Prestenn, og erud farner j burt, hvad hef eg nu epter? Og spyried þier þo ad, hvad mig vantar?

25. Enn Dans Born sogdu til hans, Laat ecke heyra þijna Raust hioa oss, so ad Reide Folksins falle ecke yfer þig, og glater þu Lijfe þijnu, og allt þitt Hws,

26. Dans Born geingu sinn Veg. Og sem Micha sa, ad þau voru honum sterkare, snere hann sier, og kom aptur j sitt Hws.

27. Enn þeir toku þad sem Micha hafde giort, og Prestenn þann sem hann hafde, og komu til Lais, til eins rolegs og ugglauss Folks, og sloou þad med Sverds eggium, og settu Elld j Stadenn, og uppbreundu hann,

28. Og þar var eingenn sem þeim kiæme til hiaalpar, þvi hann var langt fra Zidon, og hofdu øngva hondlan med Folk, og Stadurenn laa j einum Dal, sem liggur hioa BethRehob. Þar biggdu þeir Borg, og binggu þar j,

29. Og kolludu hana Dan, epter Nafne Dans þeirra Fodurs, sem var fæddur af Jsrael, og Stadurenn hiet fyrr meir Lais.

30. Og Dans Born uppreistu þetta Bilæte fyrer sier. Og Jonathan, Son Gerson, Sonar Manasse, og hans Syner, voru Prestar a medal ættar Dan, allt til þess Tijma, sem þeir voru Hertekner j burt flutter af Landenu.

31. Og so settu þeir Micha Bilæte upp, a medal sijn, sem hann hafde giora laated, so leinge sem Guds Hws var j Silo.

## XIX. Capitule.

Skammarleg Medferd a Fridlu Eins Manns af þeim Levitisku, i Gibea.

I þann Tijma var eingenn Kongur yfer Jsrael. Og eirn Levitiskur Madur * var framande hioa Sijdu Fiallbyggdanna Ephraim, og hann hafde teked sier eina Frillu til Kvinnu, af Bethlehem Juda,

* Lutherus j sijnum Annalum seiger, Eg trui ad su Historia um Levitann og hans Konu sie skied undir þeim Domara Ehud, og Historiann um Michas er su fyrsta, af Levitanum aunnur, og af Ruth su þridia.

2. Og sem hun hafde framed Hoor hioa honum, so hliop hun fra honum j sijns Fodurs Hws, til Bethlehem Juda, og var þar j Fiora Maanude.

3. Enn Bonde hennar took sig upp, og foor epter henne, og villde tala vingiarnlega vid hana, og faa hana til sijn aptur, og hann hafde med sier eirn Svein, og Tvo Asna. Og hun leidde hann j sitt Fodurs Hws. Enn sem Fader Kvinnunnar saa hann, vard hann gladur, og tok vid honum.

4. Og hans Maagur, Kvinnunnar Fader, hiellt honum, so hann var hioa honum j Pria Daga, aatu og drucku, og voru þar um Nottena.

5. A þeim Fiorda Deige binggu þau sig miog snemma til, og hann stood upp og villde ferdast. Þa sagde Faderenn Kvinnunnar til sijns Maags, Lijfga þitt Hiarta aadur med litlu Braude, og epter þad skulud þid ferdast.

6. Og þeir settust nidur, aatu baader tilsamans, og drucku. Og Fader Kvinnunnar sagde til Mannsins, Kiære, blijf hier þessa Nott, og gled þitt Hiarta.

7. Enn sem Madurenn stod upp og villde ferdast, þa naudgade hans Maagur honum, so hann var þar um Nottena.

8. Enn Fimmta Dag, ad Morgne, biost hann til sinnar ferdar, snemmindis, og villde fara af Stad, þa sagde Faderenn Kvinnunnar, Kiære, lijfga þu aadur Hiarta þitt, og laat oss tefia til Kvollds, og þeir neyttu baader samann.

9. Og Madurenn bioo sig, og villde ferdast med sinne Frillu, og med sijnum Þienara. Enn hans Maagur, Kvinnunar Fader, sagde til hans, Sioa, Dagurenn er lidenn, og komed er ad Kvollde, vertu þier þessa Nott, Sioa, hier er enn Herberge þennann Dag, vert hier j Nott, og gled þitt Hiarta, a Morgun standed aarla upp, og ferdist yckar veg, til þijns Heimelis.

10. Enn Madurenn villde ecke vera þar um Nottena, helldur bioo sig til, og foor af Stad

Stad og kom til Jebus, þad er Jerusalem, med bꝛada sijna Asna klifiada, og hans Frilla med honum.

11. Sem þau komu nu nær Jebus, leid miog a Dagenn, og Sveirnenn sagde til sijns Herra, Kiære, ferdast framm, og lꝛat oss vijkia j þennann Jebusita Stad, og vert þar j Nott.

12. Enn hans Herra sagde til hans, Eige vilium vier koma j þennann framande Stad, sem ecke er af Israels Bornum, helldur skulum vid fara yfer um til Gibea.

13. Og hann sagde til sijns Sveins, Hrada þier, so vier komunst til einhvors Stadar ad vera j Nott, annad hvort j Gibea, edur j Rama.

14. Og þeir ferduduft aframm, og fooru sijna leid, og Sool rann til vidar þa þeir komu miog so ad Gibea, sem liggur under Ben-Jamin.

15. Og þeir viku þar jnn, ad þeir kiæmust jnn, og væri þa Nott j Gibea, og er hann kom þar jnn, sette hann sig nidur a Stræte Stadarins, þvi þar var eingenn sem þeim villde lꝛa Herberge um Nottina.

16. Og sꝛa, þar kom einn gamall Madur ad kvollde, fra sijnu Arfide, af Akre, hann var og so af Ephraims Fialle, og eirn framande j Gibea, enn Folked þess Stadar voru Born Jemini.

17. Og sem hann upplypte sijnum Augum, og sa hann vegfaranda Mann a Strætenu, þa sagde hann til hans, Hvort villtu fara, eda hvadann komst þu hingad?

18. Hann svarade honum, Vier forum fra Bethlehem Juda, og forum nu til Fiallshlijdar Ephraim, þvi þar a eg heima, eg foor til Bethlehem Juda, enn fer nu til Drottins Hꝛꝛs, og eingenn vill lꝛa mier Herberge.

19. Vier hofum Hey og Foodur til vorra Asna, Braud og Vijn handa mier, og minne Ambꝛatt, og Sveinenum sem med þijnum Þienara fer, so oss vantar eckert.

20. Hinn gamle Madur svarade, Fridur sie med þier, allt hvad sem ad þig vantar þad skalltu finna hia mier, ligg þu ecke j Nott a opnu Stræte.

21. Og hann leidde hann j sitt Hꝛꝛs, og gaf hans Osnum Foodur, og þau þvodu sijnar Fætur, ꝛatu og drucku.

22. Og sem þeirra Hiortu voru nu glod, Sꝛa, þa komu þar Borgarmenn, ærger Skalkar, umkringdu Hꝛꝛsed, bordu a Dyrnar, og sogdu til þess gamla Manns, sem var Hꝛꝛsbondenn, Leid þann Mann ꝛꝛt hingad, sem komenn er j þitt Hꝛꝛs, so vier meigum kienna hann.

23. Enn Madurinn, Hꝛꝛsbondenn Hꝛꝛssins, gieck ꝛꝛt til þeirra, og sagde til þeirra, Nei, mijner Brædur, giored ecke so jllt (Verk) first ad þesse Madur er komenn j mitt Hꝛꝛs, giored ecke þvilijkt Heimskupar.

24. Sꝛa, eg hefe eina Dotter, sem enn nu er ein Jungfru, og þesse Madur hefur Frillu, þær vil eg leida ꝛꝛt til ydar, vanvirded þær, og breited vid þær, so sem ydur Lyster, enn giored ecke soddann Heimskupar þessum Manne.

25. Enn Folked villde ecke hlyda honum. Þa tok Madurenn sijna Frillu, og leidde hana ꝛꝛt til þeirra, og þeir kienndu hennar, og misþirmdu henne alla þa Nott, allt til Morguns,

26. Og sem Morgunrodenn upprann, þa lietu þeir hana fara. Sijdann kom Kvinnann snemma Morguns, fiell nidur fyrer þess Manns Hꝛꝛsdyrum, þar hennar Herra var jnne, og lꝛa þar þangad til ad biart var.

27. Enn sem hennar Hꝛꝛsbonde stood upp um Morguneun, og uppliet Dyrnar a Hꝛꝛsenu, og giek ꝛꝛt, ad reisa sinn Veg, Sꝛa, þa lꝛa hans Frilla þar fyrer Hꝛꝛsdyronum, og hennar Hendur a Proskolldeaum.

28. Hann sagde til hennar, Statt upp, vier vilium ferdast. Enn hun svarade ongvu. Þa tok hann hana upp a Asnann, bioo sig til, og ferdadest til sijns Stadar.

29. Enn sem hann kom nu heim, tok hann eirn Knijf, og gieck til sinnar Frillu, og hiu

tade hana j sundur, med Beinum og ollu, j Tolf Sticke, og sende þau j oll Israels Landamerke.

30. Enn hvor sem þad sa, hann sagde, Þvilijkt hefur ecke skied edur sied verid, sijdann Israels Born fooru af Egyptalande, allt til þessa Dags. Nu hugsed ydur hier um, og giefed til Raad, og seiged framm.

## XX. Capitule.

Benjamins Ættkvijsl asmaʒt nærre þvi giorvoll.

Epter þetta fooru Israels Born vt, og sofnuduſt samann, so sem eirn Madur være, fra Dan, og allt til Berseba, og af Lande Gilead, til DROTTins i Mizpa,

2. Og þeir yppurstu af þvi ollu Folke, sem voru fyrer allre Israels Ætt, geingu til samans j Gllds Samkundu, Fiogur Hundrud Þusund Manns, Fotgongulid, sem vtdrogu Sverd,

3. Enn Born BenJamins heyrdu ad Israels Born voru komenn til Mizpa. Og Israels Born sogdu, Seiged framm, hvornenn þetta vonda (Verk) er skied.

4. Þa svarade Levitenn, þeirrar Kvinnu Bonde sem ad drepenn var, og sagde, Eg kom j Gibea j BenJamin, med minne Frillu, ad vera þar um Nott,

5. Þar risu Borgarmenn Gibea upp jmoote mier, og spenntu mig j Hwsenu um Nottena, og otludu ad drepa mig, þeir skommudu mijna Frillu so ad hun doo.

6. Sijdann took eg mijna Frillu, og skipte henne j sticke, og sende eg þau vt um allar Israels Erfda Endemerkur, þvi þeir hofdu giort eirn Skammar-hlut og Heimskupar j Israel.

7. Sia, þier erud þar Oll Israels Born, raadgest um, og giored nockud hier til.

8. Epter þetta tilbioo sig allt Folked, so sem eirn Madur, og sagde, Þar skal eingenn Madur fara til sijns Heimelis, og eige hverfa aptur j sitt Hws.

9. Helldur vilium vier nu þetta giora vid Gibea, Vier skulum taka Hlute.

10. Og taka Tiju Menn af Hundrade, og Hundrad af Þusund, og Þusund af Tiju Þusundum, af ollum Israels Ættkvijslum, ad þeir safne Fædslum handa Folkenu, so ad þad fare og giore vid Gibea BenJamin, epter þvi sem þeirra skammarlegt verk er, er þeir hafa framed j Israel.

11. Sijdann sofnuduſt aller Israels Menn til stadarins, lijka sem eirn Madur være, og giordu samband sijn a mille.

12. Og Israelis Ættkvijsler sendu Menn til alls BenJamins Kinþoattar, og lietu seigia þeim, Hvad er þad fyrer Vondsku sem skied er hia ydur?

13. So frammselied nu þa Menn, þa jllu Skalka j Gibea, so vier meigum sla þa j hel, og burt taka so þad vonda af Israel. Enn BenJamins Born villdu ecke hlyda Raust sinna Brædra Israels Barna,

14. Helldur komu þeir saman af Borgunum, til Gibea, til ad fara j Strijd a moote Israels Bornum.

15. Enn Born BenJamins voru talenn a þeim Deige af Stodunum, Sex og Tuttugu Þusund Manns, sem droou vt Sverd, fyrer utann þa Borgarmenn Gibea, sem voru talder Sio Hundrud einvalda Lids,

16. Og a medal þessa Folks voru Sio Hundrud Menn vtvalder, sem voru Aurfhendter, og kunnu ad hæfa eitt Hear med Slongvum, so þeim brast þad ecke.

17. Enn þeir af Israel (fyrer utann þa sem voru af BenJamin) voru talder Fiogur Hundrud Þusund Manns, sem baaru Sverd, og færer voru aller til Bardaga.

18. Þeir biuggu sig til, og geingu upp til Guds Hwss, spurdu Gud (Raada) og sogdu, (a) Hvor skal vera vor Hofdinge, og uppbiria Bardaga þennann, j moote Bornum BenJamins? DROTTinn sagde, Juda skal þad uppbiria.

(a) (Hvor skal) þeir bidia ecke um Sigurenn, Helldur treysta upp Magt og sijna sok, og hughreystast þar af, ad Born BenJamin hafa jllt giort.

19. So

19. So bivggu Israels Born sig aarla Morguns, og settu sijnar Herbvoder fyrer Gibea.

20. Og hvor Madur af Israel gieck vt ad beriast vid BenJamin, og þeir skipudu sier nidur, til ad strijda a Gibea,

21. Pa fiellu BenJamins Born vt af Gibea, og felldu a þeim Deige af Israel, Tvær og Tuttugu Pusunder Manna.

22. Enn Israels Manna Folk efldu stirk, og biugguſt enn aptur til Bardaga, j þeim sama stad, sem þeir hofdu utbueſt hinn fyrra Dag,

23. Og Israels Born geingu upp og grietu fyrer DROTTni allt til Kvollds, Og þeir adspurdu DRottinn, og sogdu, Skulum vier (b) framarmeir fara nær, ad beriast vid BenJamins Born, vora Brædur? DRottinn svarade, Fared upp til þeirra,

(b) (Framar meir) Enn nu bidia þeir ecke, þvi verdur þeim ecke Sigurenn heitenn.

24. Og sem Israels Born drovu a moot BenJamins Bornum, þann annan Dag,

25. Pa fiellu BenJaminitar vt af Gibea, a þeim Deige j mots vid þa, og sloou enn aatian Pusunder Manna, af Israels Bornum, alla vopnfæra Menn.

26. Epter þetta fooru oll Israels Born upp, og allt Folked, og komu til Guds Hwss, og grietu, og voru þar fyrer DROTTni, og fostudu þann Dag til Kvollds, og offrudu Brennefoornum, og Packlætis Offre fyrer DRottni.

27. Og Israels Born adspurdu DRottinn, Enn Saattmaals Ork DROTTins var j þeim Stad, a þeim tijma.

28. Og Phinees, Eleasars Son, Aarons Sonar, stood fyrer honum a þeim sama tijma, og þeir sogdu, Skulum vier framar vt fara ad beriast vid BenJamins Born vora Brædur, eda skulum vier af laata? DROttinn sagde, Draged þar upp, þviad a Morgun vil (c) Eg giefa þa j ydar Hendur.

(c) (Eg) seiger Gud, vil þad giora, hingad til hafed Pier viliad giora þad. Enn þad heiter Eg, enn ecke Pier.

29. Og Israels Born settu Launsaatur allt j Kring um Gibea,

30. So drovu Israels Born vt a þeim þridia Deige upp a moote BenJamins Bornum, og biugguſt ad strijda a Gibea, eins so sem aadur tvisvar.

31. Pa fooru BenJamins Born vt a mots vid Folked, og gaafu sig fra Stadnum, og tooku til ad sloa og særa nockra Menn af Folkenu, so sem þeir giordu aadur fyrre tvær reisur vt j Morkenne, a tvo vegu (soa eine liggur til BethEl, enn annar til Gibea) og sloou nær Priatiju Menn af Israel.

32. Pa hugsudu BenJamins Born, þeir falla fyrer oss sem fyrr. Enn Israels Born sogdu, Flyum vier, so ad vier meigum locka þa fra Stadnum, vt a Veguna.

33. Sijdan bioſt Israels Folk, hvor eirn af sijnum stad, og biuggu sig til Bardaga j Baal Thamar.

34. Og Israels Launsaatur kom framm af sijnum stad, af þeim Heller Gaba, og komu til Gibea Tiju Pusund Manna, valed Lid af ollum Israel, so ad þar vard hardur Bardage. Enn þeir vissu ecke ad Oluckann stood fyrer þeim.

35. So sloo (d) DROTTinn BenJamin fyrer Israels Bornum, so ad Israels Born fordiorfudu a þeim Deige Fimm og Tuttugu Pusunder, og Hundrad Menn, af BenJamin, sem aller baaru Sverd.

(d) DRottinn sloo BenJamin, enn ecke Israel, þvi þad vill so heita, Alleinasta Gude sie Lof og Dijrd j hærstum hædum.

36. Pviad þa BenJamins Born sau fall sinna Manna, þa gaafu Israels Menn þeim rwm, þvi þeir treystu uppa þad Launsaatur, sem þeir hofdu til sett hiaa Gibea.

37. Og þeir j Launsaatrenu flyttu sier og so, og komu framm a moote Gibea, naalgudu sig þangad, og sloou þann allann Stad med Sverds Eggium.

38. Enn Israels Menn, og þeir sem j Launsaatrenu voru, hofdu Merke sett med sier, ad

þeir skylldu falla yfer þa med Sverde, þa Reykurenn giæfe sig upp af Stadnum.

39. Enn sem Israels Menn sneruſt vid j Bardaganum, og BenJamin tok til ad ſlaa, og særdu nær þriatiju Menn af Iſrael, og hugsudu, Þeir liggia fallner fyrer oſs, ſo ſem j fyrre Bardogum,

40. J þeſſu bile took Reykur ſtrax upp ad koma af Stadnum. Enn BenJamin ſnereſt a Hæl, og ſiaa, ad Reykenn og Loganu af Stadnum lagde upp j Himenenn.

41. Og Iſraels Menn ſneru ſier og ſo vid, og ſkielfdu Menn BenJamin, þviad þeir ſaau ad Olucka hafde hitt uppa ſig.

42. Og ſneru undan Iſraels Monnum, a þann Veg ſem liggur til Eydemerkur, Enn ſtrijded ſokte epter þeim, Þar til þeir, ſem af Borgunum voru, fordiorfudu þa millum ſijn,

43. Og þeir umkringdu BenJamin, og elltu þa allt til Menuah, og undertroodu þa allt ad Gibea, moot Auſtre,

44. Og þar fiell af BenJamin aatian Þuſund Manna, þeir aller voru Strijds Menn.

45. Þa ſneru þeir ſier a Flootta, til Eydemerkur, ad þvi Biarge Rimmon. Og a þeim ſama Veige ſlou þeir Fimm Þuſund Manna, og þeir ſoktu bak epter þeim til Gideom, og ſlou af þeim Tvær Þuſunder Manns.

46. So ad a þeim Deige fiellu af BenJamin Fimm og Tuttugu Þuſunder, Vopnfærer og villduſtu Strijdsmenn.

47. Ad eins Sex Hundrud Manns ſneru ſier og flodu undann til Eydemerkur, til þeſs Biargs ſem kallaſt Rimmon, og voru þar fiora Moanude.

48. Og Iſraels Menn komu aptur til Barna BenJamin, og ſloou þad ſem j Borgenne var, med Sverds Eggium, bæde Folk og Fienad, og allt þad ſem þar fannſt jnne, og allar Borger, ſem þeir fundu, brenndu þeir med Elde.

# XXI. Capitule.

BenJamins Ættkviſl vidretteſt aptur Nockurn veginn.

Iſraels Menn hofdu ſvared j Mizpa, og ſagt, Þar ſkal eingenn giefa þeim BenJaminitis ſijna Dotter til Eignarkvinnu.

2. Og Folked kom til Guds Huſs, og var þar fyrer Gude allt til Kvollds, og þeir upp hoofu ſijnar Radder, og grietu beiſklega,

3. Og ſogdu, O DROTTinn Gud af Iſrael! Þvi mun þvilijkt hafa ſkied j Iſrael, ad a þeſſum Deige er orded einne Kinkviſl færra j Iſrael?

4. Um Morgunenn epter tok Folked ſig aarla upp, og biggde þar eitt Alltare, og offrudu Brennefoornum, og Þacklætis Offre.

5. Og Iſraels Born ſogdu, Hvar er ſa nockur ſtadar af Iſraels Kinkviſſlum ſem ecke er komenn hingad upp med Almuganum, til DROTTins? Þvi þar var giordur einn ſtoor Eidur, ad hvor ſem ecke kiemur upp til DRottins j Mizpa ſa ſkyllde viſſulega deya,

6. Enn Iſraels Born jdruduſt vegna BenJamins ſijns Brodurs, og ſogdu, J Dag er ein Kinkviſl vor fallenn j Iſrael,

7. Hvornenn ſkulum vier bera oſs ad, ad þeir ſem epter eru meige giptaſt? þvi vier hofum ſvared vid DROTTinn, ad vier ſkulum ecke giefa þeim Kvinnur af vorum Dætrum.

8. Og þeir ſogdu, Hvar eru nockur ſtadar af Iſraels Ættkviſſlum þeir ſem ecke hafa upp komed til DROTTins, j Mizpa. Og ſiaa, þar var eingenn, j Almugans Herbudum, af Jabes j Gilead,

9. Þviad þeir toldu Folked, og ſiaa, þar var þa eingenn Borgare af Jabes j Gilead.

10. Þa ſende Almugenn Tolf Þuſund Manns þangad af Strijdsmonnunum, budu þeim og ſogdu, Fared og ſlaaed med Sverds Eggium Jabes Borgara j Gilead med Konum og Bornum.

11. Þo ſkulud þier ſo giora, Allt þad ſem er

er Karlkins, og allar þær Kvinnur sem Menn hafa kiennt, skulu þeir foreyda.

12. Og þeir fundu hia þeim Borgurum j Jabes, j Gilead, fiogur Hundrud Pijkur, sem voru Meyar, og ecke hofdu leiged hia Monnum, þær hofdu þeir til Herbuda j Silo, sem liggur j Lande Canaan.

13. Pa sende allur Almugenn af stad, og liet tala vid BenJamins Born, sem voru a þvi Biarge Rimmon, og kolludu þa fridsamlega.

14. So komu BenJamins Born aptur a þeim tijma. Og þeir gafu þeim þær Kvinnur, af Jabes Kvinnum j Gilead, sem þeir hofdu epter, og ecke fundu þeir so fleyre.

15. Pa Jdradest Folked yfer BenJamin, ad DRottinn hafde giort eitt skard j Jsraels Kinkvijsler.

16. Enn þeir Olldungar fyrer Almugnum sogdu, Hvad vilium vier tilgiora, svo ad þeir sem epter eru meige og faa Eigennkonur? Þviad Kvinnur j BenJamin eru afmadar.

17. Og þeir sogdu, Þeir sem epter eru af BenJamin meiga þo hallda sijnum Arfe, ad ein Kinkvijsl verde ecke med ollu afmad af Jsrael.

18. Enn vier meigum ecke giefa þeim vorar Dætur til Eigennkvenna, þvi Jsraels Born hafa svared og sagt, Bolvadur sie saa sem giefur þeim BenJaminitis Ecktakvinnu.

19. Og þeir sogdu, Sia, þar er Drottins aarleg Hatijd j Silo, sem liggur Nordur fra BethEl, moot Austre, a þeim Vege sem liggur upp fra BethEl til Sichem, j Sudur aatt moot Libona.

20. Og þeir budu BenJamins Bornum, og sogdu, Fared og ligged j leyndum j Vijngordonum,

21. Og þa þier siaed, ad þær Dætur af Silo ganga ut, hvor epter annare, j Dans, þa hlauped sem snarast ur Vijnvidargordonum, og take hvor sier Eigennkonu af Silo Dætrum, og fared svo aptur j BenJamins Land.

22. Enn þa þeirra Fedur, eda Brædur, koma, og klaga þetta fyrer oss, þa vilium vier seigia til þeirra, Vered þeim naduger, þvi vier hofum ecke teked þær med Strijde, enn þier villdud ecke giefa þeim þær, þad er nu ydar Skulld.

23. BenJamins Born giordu svo, og tooku Kvinnurnar epter sijnu Manntale, ur Dansenum, þær sem þeir rændu, og ferdust burt þadann, og bigdu j sijnum Erfdahluta, bigdu Borger, og bigdu j þeim,

24. Svo fooru Jsraels Born þadann aa þeim Tijma, hvor til sinnar Kinkvijslar og Ættar, og þeir ferdust þar fra, hvor til sinnar Arfleifdar.

25. A þeim Tijma var eingenn Kongur j Jsrael, og giorde hvor þad sem honum þotte riett vera.

Ender aa Domara Bookenne.

# Bookenn Ruth.

## I. Capitule.

Tvær Ecktiur, Naemi og Ruth, koma til Bethlehem a Bigg-Skeru-Tijmanum.

A þeim Tijma þa Domendur stiornudu vard miked hallære j Landenu. Og eirn Madur af Bethlehem Juda, flutte sig j burt j Land þeirra Moabitarum, medur sinne Kvinnu og Tveimur Sonum,

2. Hann hiet EliMelech, og hans Kvinna Naemi, og hans Tveir Syner, Mahlon og ChilJon, þeir voru Ephratear, af Bethlehem Juda. Enn sem þau komu j Land þeirra Moabitarum, stadnæmdust þau þar.

3. Og EliMelech, Bonde Naemi, andadest. Enn hun var epter med sijnum Tveimur Sonum,

4. Þeir toku sier Moabitiskar Eigennkonur, ein þeirra hiet Arpa, enn önnur Ruth. Og sem þeir höfdu bwoed þar hardtnær j Tiju Aar,

5. Pá ondudust þeir baader Mahlon og ChilJon, og Kvinnann lifde baada sijna Sonu, og sinn Bonda.

6. Pa tok hun sig upp med sijnum Tveimur Sonarkvinnum, og ferdadest aptur af Lande Moab, þvi hun hafde friett þad j Land Moabitarum, ad DROttinn hafde vitiad sijns Folks, og giefid þvi Braud.

7. Og hun gieck wt af þeim Stad, sem hun hafde vered, og baadar hennar Sonar Kvinnur med henne. Og sem hun gieck nu a Veigenn, ad hun kiæme aptur j Land Juda.

8. Pa sagde hun til beggia sinna Sonakvenna, Fared og snued aptur, hvor yckar til Hwsa sinnar Modur. DRottinn veite yckur Miskun, so sem þid hafed giort þeim Frammlidnu, og so mier,

9. DROTTinn giefe yckur, ad þid finned Hvijld, hvor j sijns Manns Hwse, og hun minntest vid þær. Pa upphoofu þær sijnar Radder og grietu.

10. Og sögdu til hennar, Vid vilium fara med þier til þijns Folks.

11. Enn Naemi sagde, Snued aptur, mijnar Dætur, hvar fyrer vilied þid fara med mier? Hvad mun eg gieta Born j mijnum Kvide hier epter, sem mætte verda yckar Menn?

12. Snued aptur, mijnar Dætur, og fared burt, þvi eg er nu ofgömul ad giptast Manne. Og þo ad eg segde, þad er til vonar ad eg take Mann a þessare Noottu og fæde Born,

13. Hvornenn gieted þid þo beded so leinge, þar til þeir eru stoorer? Þvi vilied þid dvelia þvi ad giptast aptur? Ecke so, mijnar Dætur, mig aumkar miog yfer yckur, þviad Hönd DROTTins hefur yfer mig wtgeinged.

14. Pa upphofu þær sijna Raust, og grietu enn meir, og Arpa minntest vid sijna Moagkonu, enn Ruth stadnæmdest hioa henne.

15. Pa sagde hun, Siadu, þijn Moagkona snere aptur til sijns Folks, og til sijns Guds, snu þu nu aptur med þinne Moagkonu.

16. Ruth svarade, Tala þu ecke þar um, ad eg mune skilia vid þig, og fara fra þier, hvort sem þu fer, þangad vil eg og so fara, hvar þu ert, þar em eg og eirnenn, þitt Folk er mitt Folk, og þinn GUD er minn GUD.

17. Hvar þu deyr, þar dey eg, og þar vil eg jordud vera, DROTTinn giore mier þad og þad, Daudenn skal ockur skilia.

18. Enn sem hun nu sa, ad henne var fast j Giede ad filgia henne, þa hætte hun ad tala vid hana þar um.

19. So geingu þær baadar tilsamans, þar til þær komu til Bethlehem. Og sem þær geingu jnn j Stadinn, hrærdest öll Borgenn yfer þeim, og sagde, Er þad Naemi?

20. Enn hun sagde til þeirra, Kalled mig ecke Naemi, helldur (a) Mara, þviad sa Allmaattuge hefur miog hrellt mig,

(a) (Naemi) þydest mijn Lyst; (Mara) þydest Beisk edur Sorgfull.

21. Eg foor full (rijk) j burtu, enn Drottinn hefur fært mig snautt heim aptur. Þvi kalled þier mig þa Naemi, þar ad DROttinn hefur so læckad mig, og sa Allmaattuge hefur hrellt mig?

22. Þetta skiede a þeim Tijma (Aarsins) þa ed Bigg-Kornskurdurenn tok til, þa Naemi og hennar Sonarkona, Ruth hin Moverska, komu aptur, af Landenu Moabitarum, til Bethlehem.

## II. Capitule.

Ruth safnar Axenum a Boas Akre.

Og þar var eirn Madur, hann var næaenn ad Frændseme vid Mann Naemi, af Ætt Eli Melechs, hann hiet Boas, hann var eirn miog Rijkur Madur.

2. Og Ruth, su Moverska, sagde til Naemi, Laat mig fara wt um Akra, ad eg samanlese Axenn, epter þeim sem ecke amast vid mier. Hun sagde til hennar, Far þu mijn Dotter.

3. Hun foor af Stad, kom og tijnde Oxenn epter Kornskurdar Monnonum Akursins. Enn so bar til, ad þennann sama Akur ætte Boas, Frænde EliMelechs.

4. Og siaa, j þessu bile kom Boas fra Bethlehem, og kvadde so Kornskurdar Menn sijna, Vere DROTTINN med ydur, þeir svara, GUD blesse þig.

5. Og Boas mællte til sijns Sveins, sem var settur yfer Kornskurdar Mennena, Hvorium heyrer þesse Stulka til?

6. Sveirnenn, sem settur var yfer Kornskurdar Mennena, svarade og sagde, Pad er su Moverska Kvinna, sem er komenn aptur med Naemi, af Lande Moabitarum.

7. Pvi hun sagde, Bid eg ad þu leyfer mier ad safna tilsamans, og upp ad lesa a medal Bindenanna, epter Kornskurdarmonnonum, So kom hun hier, og hefur staded hier fra Morgne og jnn til þessa, og var ecke nema litla (a) stund heima.

(a) Þad er, hun er ecke ein af þeim Lotu Kvennsvipum sem Heima sitia Idiulausar a Sessunne.

8. Pa sagde Boas til Ruth, Heyrdu mijn Dotter, Pu skallt ecke fara um annann Akur ad safna saman, og gack ecke helldur hiedann, Helldur filg þu Pionustu stulkum mijnum,

9. Og siaa til hvar þær skiera Korned af Akrenum, og gack epter þeim, Eg hefe boded mijnum Pienorum, ad eingenn kome vid þig. Og ef þig þyrster, þa gack ad Kerenn og dreck, sem mijner Pienarar ausa af.

10. Ruth fellur þa framm a sijna Asionu, og tilbad a Jordu, og sagde til hans, Med hvoriu hef eg þvilijka Naad funded fyrer þijnum Augum, ad þu þecker mig so, þar eg er ein Utlend Kvinna.

11. Boas svarade, og sagde til hennar, Sagt er mier allt hvad þu hefur giort vid þijna Maagkonu, epter frafall þijns Bonda, Ad þu hefur yfergiefed þinn Fodur, og þijna Modur, og so þitt Fodurland, og hefur fared til þess Folks sem þu ædur þeckter ecke.

12. DROTTinn umbune þier þinn giorning, og þijn Laun skulu vera fullkomenn hiaa DROTTni Israels Gude, til hvors ad þu ert nu komenn, ad hafa skiol under hans Vængium.

13. Hun svarade, Minn Herra! Laat mig finna Naad j þijnu Auglite, þvi þu hefur huggad mig, og blijdlega talad vid þijna Ambaatt, þar sem eg ma þo ecke samvirdast einne af þijnum Ambaattum.

14. Boas mællte til hennar, Pa Maaltijdar tijmenn er, þa kom hingad, og et Braud, og drep þijnum Bita j Edik. Og hun sette sig utann hiaa Kornskurdar monnonum. Enn hann lagde steikt Axin fyrer hana, Og hun aat, og vard mett, og leifde af.

15. Og sem hun stood upp saman ad tijna, þa baud Boas sijnum Sveinum, og sagde, Laated hana og so safna saman a medal Bindenanna, og giorid henne ecke Kinnroda.

16. Laated og nockud ei oviliande epter verda, so hun meige saman lesa þad, og eingenn skal avijta hana þar fyrer.

17. So saman las hun um Akurenn, allt til Kvollds, og barde Korned af Halmenum, sem hun hafde saman lesed, og þad var nær eitt Epha med Bigg,

18. Hun tok þad upp, og kom j Stadenn, og hennar Maagkona sa þad hun hafde aflad, Hun liet og framm, og gaf henne þær Vistar leyfar þar af hun hafde sadst.

19. Pa mællte Maagkona hennar til hennar, Hvar samansafnader þu j Dag, og hvar hefur þu arfidad? Blessadur sie sa Madur er þig þeckte. Enn hun sagde sinne Maagkonu, hiaa hvorium hun hafde unned, og sagde, Sa Madur heiter Boas, hiaa hvorium eg hefe j Dag unned.

20. Og Naemi sagde til sinnar Sonar Konu, Blessadur vere hann fyrer DRottni, þvi hann hefur ecke yfergiefed sijna Miskunsemd, hvorke vid þa Lifondu, nie þa Framm lidnu. Og Naemi sagde til hennar, Pesse Madur er Frænde vor, og er vor Erfinge.

21. Ruth su Moverska svarade, Hann sagde og þad til mijn, Þu skallt filgia mijnum Sveinum, þar til loked er øllu Akurverke.

22. Naemi sagde til Ruth sinnar Sonarkonu, Betra er, mijn Dotter, ad þu ganger vt med hans Ambaattum, so ad eingenn meige tala þier vondt til a odrum Økrum.

23. Sijdann filgde hun Ambaattum Boas, og hun safnade saman, þar til bæde Bigg og Hveite var loked ad uppskiera, og kom aptur til Maagkonu sinnar.

## III. Capitule.

Ruth leggur sig til Fota Boas i hans Hlødu, epter Raadlegging Naemi.

Og Naemi, hennar Maagkona, sagde til hennar, Mijn Dotter, eg vil leita þier hvijldar, so ad gott raad giørdest fyrer þier,

2. Þesse Boas vor Frænde, hiaa hvørs Ambaattum þu hefur vered, hann vinsar Bigg sitt j Noott, j sijnum Lafagarde.

3. Þar fyrer skallt þu laugast, og smyria þig, og klæd þig, og gack ofann j Lafagardenn, so ad eingenn þecke þig, þar til þeir hafa votaf eted og drucked,

4. Enn þa hann leggur sig, þa hygg þu ad vandlega þeim stad hvar hann legst, kom sijdan og lypt upp (Abreidunne) ad hans Footum, og legst þar nidur, So mun hann seigia þier, hvad þu skallt giora,

5. Ruth sagde til hennar, Allt hvad þu seiger mier þad vil eg giora.

6. Og hun gieck nidur j Lafagardenn, og giorde allt so sem hennar Maagkona hafde boded henne.

7. Enn sem Boas hafde eted og drucked, vard hans Hiarta Gledekiennt, foor og lagde sig a bak vid eirn Bindena Hlada. Ruth kom hliodlega, og lypte upp (Abreidunne) ad Footum hans, og lagdest nidur,

8. Enn sem nu var mid Noott, kom Otte yfer Mannenn, og hrock saman, Og sia, ad Kvinna laa til hans Foota.

9. Og hann sagde, Hvor ert þu? Hun svarade, Eg em Ruth, þijn Þionustu Kvinna, Breid þu (a) þijna Vænge yfer þijna Þionustu Kvinnu, þviad þu ert Erfingenn.

(a) Þijna Skickiu.

10. Enn hann sagde, Blessud siertu fyrer DROTTne, mijn Dotter, Þu hefur giort þa seirne Miskun stærre þeirre hinne firstu, ad þu hefur ecke fared epter ungum Monnum, hvorke rijkum nie Fataækum.

11. Nu, mijn Dotter, ottast ecke, Allt þad þu seiger, vil eg giora þier, þvi allur minn Borgar Lydur veit, ad þu ert Dygdarrijk Kvinna.

12. Nu er þad satt, ad eg em Erfingenn, þo er þar annar naanare enn eg,

13. Vert hier j Noott, Vilie hann taka þig a Mørgun, þa er vel, Enn ef hann lyster ei ad taka þig, þa vil eg taka þig, so sannarlega sem DROTTinn lifer, sof þu til Morguns.

14. Og hun sofnade til Morguns hiaa hans Footum. Og hun stood upp, fyrr enn nockur þeckte annann. Og hann hugsade, Eingenn skal faa þetta ad vita, ad ein Kvinna kom j Lafagardenn.

15. Og hann sagde, Laat þu hingad yferklæde þitt, og greid þad til, Hun giorde so. Og hann mællte sex mæler med Bigg, og lagde þad upp a hana. Og hann kom j Stadinn.

16. Enn hun foor til sinnar Maagkonu, Hun sagde, Hvornenn hefur til geinged, mijn Dotter? Og hun kunngiorde henne allt þad sem þesse Madur hafde giort henne,

17. Og sagde, Þessa sex Mæla Biggs gaf hann mier, þvi hann sagde, Þu skallt ecke koma med tvær Hendur toomar heim til þinnar Maagkonu.

18. Og hun sagde, Bijd kirr, mijn Dotter, þar til þu veitst hvor endalyckt afellur hier um, þvi þesse Madur lietter ei fyrr enn hann hefur fullgiort þad j Dag.

IV. Ca-

# IV. Capitule.

Boas tekur (I) Ruth til Egta, og (II) Blessast med Einum Syne.

I. Og Boas gieck upp ad Stadar Porstenu, og sette sig þar. Og sioa, þa Erfingenn gieck þar framm hioa, talade Boas til hans, og sagde, Kom og set þig nidur hier edur þar. Og hann kom og settest nidur.

2. Og Boas tok Tiju Olldunga af Borgar Monnonum, og sagde, Sitied nidur, og þeir settust nidur.

3. Pa mællte hann til Erfingians, Naemi, sem aptur er komenn af Lande þeirra Moabitarum, vill selia þann Akurs Part sem heyrde til vorum Brodur Eli-Melech.

4. Þvi þeinkta eg mier ad lꝏta þad koma fyrer þijn Eyru, og ad seigia, Villtu erfa hann, þa kaup hann hier fyrer Borgar Monnonum, og fyrer þeim Olldungum mijns Folks. Enn vilier þu ecke erfa þad, þa undervijsa þu mier þad, so eg meige vita þad. Þviad þar er eingenn Erfinge nema þu, og eg næst þier. Hann sagde (Akurenn) vil eg erfa.

5. Boas svarade, A hvorium Deige sem þu kauper þann Akur af Hende Naemi, þa hlytur þu og so ad taka þier til Eigennkonu þa Moverstu Ruth, hvoria ad ꝏtte frammlidenn (Frænde vor) so þu uppveker eitt Nafn þeim hinum afgeingna, a hans Erfda parte.

6. Pa svarade hann, Eige giet eg hann erfdt, so ad eg ecke fordiarfe kannskie mijna Erfd, Erfdu þad sem eg skyllde erfa, þvi ecke giet eg erft þad.

7. Enn þad var forn venia j Jsrael, Nær ed nockur villde ecke erfa, eda kaupa nockud Gots, so ad allar saker skyllde standa stodugar, þa tok hann sinn Skoo af (sijnum Fæte) og gaf hann hinum odrum, Og þetta var Vitnisburdur j Jsrael.

8. Og Erfingenn sagde til Boas, Kaup þu þad, og hann tok Skooenn af sijnum Fæte.

9. Pa sagde Boas til Olldunganna, og til alls Folksins, Þier erud til Vitnis a þessum Deige, ad eg hefe keypt af Naemi Hende allt þad sem Eli-Melech tilheyrde, og allt þad sem heyrde til Chil-Jon, og Mahlon.

10. Hier med tek eg og so Ruth þa Moverstu mier til Kvinnu, sem var Mahlons Kvinna, so eg uppvekie þeim Frammlidna eitt Nafn j sinne Erfd, so ad hans Nafn skule eige verda afmꝏad medal hans Brædra, nie af hans Stad j Portenu, Þessa Hlutar erud þier Vitne a þessum Deige.

11. Og allt Folked sem var j (Stadar) Portenu, og Olldungarner, sogdu, Þess erum vier Vitne. DROTTinn giore þessa Kvinnu, sem ad kiemur j þitt Hwus, eins og hann giorde Rachel og Lea, hvoriar bꝏdar ad uppbiggdu Jsraelis Hwus, og vare (a) (hun) miog j Ephrata, og verde prijsud j Bethlehem.

(a) Þad er, GUd giefe þu meiger tignast med henne, hvad og skiede, þvi hun fædde honum Obed Afa Davids.

12. Og verde þitt Hwus sem Hwus Perez, hvorn ad Thamar fædde Juda, af þvi Afspreinge sem DROTTinn mun giefa þier, af þessare ungre Kvinnu.

II. 13. So gieck nu Boas ad eiga Ruth, so hun vard hans Kvinna. Og þa hann gieck jnn til hennar, þa gaf DROTTinn henne ad hun vard oliett, og fædde eirn Son.

14. Pa sogdu Kvinnurnar til Naemi, Lofadur sie Drottinn, sem ad eige villde lꝏta þig Erfingialausa a þessum Tijma, so ad hans Nafn skyllde blijfa j Jsrael.

15. Hann mun endurlijfga þig, og annast þijna Elle, þviad þijn Sonarkvinna, sem þig elskade, hefur fædt þann, sem þier er betre enn Sio Syner.

16. Og Naemi tok Barned, og lagde þad j sitt Skaut, og fooströde þad upp.

17. Og hennar Grannkonur gꝏfu þvi Nafn, og sogdu, Naemi er fædt eitt Barn, og nefnde hann Obed, hann er Fader Jsai, sem var Davids Fader.

18. Petta er Perez Ætt. * Perez gat Hezron, * Matth. 1, 3 = 6. Luc. 3, 32. 33.

19. Hezron gat Ram, Ram gat Amminadab.

20. Amminadab gat Nahesson, Nahesson gat Salma,

21. Salma gat Boas, Boas gat Obed.

22. Obed gat Isai, Isai gat David.

Endar Bookarennar Ruth.

# Firsta Book Samuelis.

## I. Capitule.

(I) Um ha Ofriossomu, og (II) sidann Friossomu Onnu.

I. *H* *ar var eirn Madur af Ramathaim * Zophim, af Fiallbyggd Ephraim, * hann hiet ElKana, Son Jerohams, Sonar Elihu, Sonar Thohu, Sonar Zuph, sem var af Ephrat.

2. Hann ætte Tvær Eigennkonur, ein hiet Anna, enn ønnur Peninna. Enn Peninna ætte Børn, og Anna ætte eingenn Børn.

3. Og þesse Madur foor af sinne Borg j tilsettann Tijma upp, ad tilbidia, og offra Drottni Zebaoth, j Silo, enn þar voru Kiennemenn DROTTINS a þeim Tijma, Ophni og Phineas, þeir voru Syner Eli.

4. Og þad skiede so, a nockrum Deige, ad ElKana færde Forner, þa gaf hann sinne Kvinnu Peninna, og øllum hennar Sonum og Dætrum Hlute.

5. Enn Onnu gaf hann eirn Hlut med Hriggd, þvi hann elskade Onnu, enn Drottinn hafde byrgt hennar Kvid,

6. Og hennar Elia hrellde hana, og skapraunade henne, ad DROTTINN hafde byrgt hennar Kvid.

7. Petta skiede hvort ær, þa hann gieck upp til DROTTins Hwss ad hun hrellde hana so, enn Anna griet, og neytte øngrar Fædu,

8. Pa sagde ElKana, hennar Bonde, til hennar, Pvi grætur þu Anna? Og neyter ecke Matar, og þvi hriggest þitt Hiarta so miøg? Er eg þier ecke betre enn Tiju Syner.

9. Epter þad stood Anna upp, þa hun hafde eted og drucked j Silo (enn Eli Kiennemadur sat a Stoole, fyrer Dyrastolpa Musteris DROTTins.)

10. Og hun var miøg angrad af Hiarta, bad til DROTTins grátande,

11. Hiet a hann, og sagde, DROTTinn Zebaoth! ef þu virdest a ad lijta Eymd Amboattar þinnar, og minnast mijn, og gleyma ecke þinne Amboatt, og vilier þu giefa þinne Amboatt eirn Son, þa skal eg giefa hann DROTTni alla hans Lijfdaga, og eingenn Hoarknijfur skal sverta hans Hofud.

12. Og sem hun leinge bad fyrer Drottni, þa hugde Eli ad hennar Munne.

13. Pvi Anna talade j sijnu Hiarta, enn hennar varer hrærdust ad eins, enn ecke mætte heyra hennar Raust. Pa ætlade Eli hana vera druckna,

14. Og sagde til hennar, Hvorsu leinge villtu vera druckenn? Lat Vined renna af þier þad sem med þier er.

15. Anna svarade, og sagde, Nei, minn Herra, eg er ein sorgfull Kvinna, hvorke hef eg drucked Vijn nie afeingann Drick, helldur hef eg utaused mijnu Hiarta fyrer DROTTni.

16. Atla þu mig ecke þijna Amboatt ad vera sem eina Oræadvanda Konu, þvi allt hier til hefe eg talad af Mikelleik mijns Angurs og Ecka.

17. Pa svarade Eli, og sagde, Far þu j Fride, Israels Gud mun veita þier þa Bæn, sem þu hefur hann um bedid.

18. Hun sagde, Lat þijna Amboatt finna Nad fyrer þijnum Augum. So gieck Kvin-

Kvinnann heim aptur sinn Veg, took Fædu til sijn, og var ecke sijdann so hrigg.

II. 19. Ad Morgne Dags risu þau upp snemma, og sem þau hofdu tilbeded fyrer DROTTNE, þa snieru þau aptur, og komu heim til Ramath. Og ElKana kiennde sinnar Kvinnu Anna, og DROTTinn minnutest hennar.

20. Og epter nockra Daga vard hun þungud, og fæddeeirn Son, og nefnde hann Samuel, * þvi eg hefe (sagde hun) med Bæn feinged hann af DROTTni.

[* Samuel fæddest a þvi Tijunda are sem Eli stiornade, Anno Mundi. 2821. Fyrer Christi Fæding, 1140. Og hier byriast Spamannanna Tijme, sem Petur seiger, Post: Giorn: 3, 24. Aller Spamenn fra Samuel, og þadann af.]

21. Og sem ElKana foor upp med øllu sijnu Hyske, ad færa DROTTni Foorner, a venjulegum Tijma, og Heit sijn,

22. Þa for Anna ecke upp med, helldur sagde hun til sijns Hwsbonda, Þegar Barned er af Brioste vaned, þa vil eg skila hønum, so hann skal birtast fyrer DROTTni, og sie þar æfinnlega.

23. ElKana hennar Hwsbonde sagde til hennar, Gior so sem þier synest best falla, og sar ei fyrre upp enn þu hefur afvaned hann. Stadfeste DROTTinn hvad hann hefur mællt. So var Kvinnann heima, og hafde sinn Son a Brioste, þar til ad hun afvande hann.

24. Epter þad, þa hun hafde hann af Brioste vaned, færde hun hann upp med þremur Uxum, einum Epha Miøls, og einum Leigle Vijns, og bar hann inn j GUds Hws j Silo. Og Sveirnenn var þa enn ungur,

25. Og þeir sæfdu eirn Uxann, og færdu Barned til Eli.

26. Og hun sagde, Minn Herra, So sannarlega sem þijn Saal lifer, minn Herra, þa er eg su sama Kvinna sem ad stood hier fyrer þier, akallande DROTTinn.

27. Þann Tijma sem eg bad um þennann Svein. Nu hefur DROTTinn veitt mier mijna Bæn, þa sem eg bad hann um.

28. Þvi gief eg hann nu DROTTni aptur, alla hans Lijfdaga, med þvi hann er med Bæn feingenn af DROTTni. Og þau tilbaadu DROTTINN j þeim sama Stad.

## II. Capitule.

(I) Loffsaungur Onnu (II) O-Raadvendni Eli Sona. (III) Eli er bodad Straf.

I. Og Anna badst fyrer og sagde, Mitt Hiarta gledur sig j DROTTni, og mitt Horn er upphafed j DROTTni, minn Munnur opnadest miog yfer mijnum Ovinum, þvi eg gled mig j þijnu Hiaalpræde.

2. Þar er eingenn so Heilagur sem DRottinn, og fyrer utann Þig er eingenn, og þar er eingenn soddann Frelsare sem vor GUd er.

3. Aflegged ydart stoora Dramb og Hroosan, laated þad (a) Gamla j burt af ydrum Munne, þvi DROTTinn er eirn GUd sem gaumgiæfer þad, og lætur ecke soddann Fyrer-ætlan luckast.

(a) (Gamla) þad fasta obrigdula, ærlega, sem Menn plaga ad seigia, skick, gamla ætt, Lands Sidu og Lands Vijsu, þvi þar uppa treista Menn giarnann og seigia, AE, Su ellsta Vijsa er besta. vorer Forfedur hafa aungver gicker vered, og treista so a mote Guds Verkum, so sem hann mætte ecke neinu umbreita, nie-neytt endurnya.

4. Bogenn þeirra Øflugu er brotenn, enn þeir Veiku eru umgyrdter med styrkleika.

5. Þeir enu soddu eru selldter fyrer Braud, enn þeir sem lidu Hungur hungra ecke meir, þar til ad su en Obiria fædde Sio, og su sem mørg Born hafde vard veik.

6. DROTTinn Deyder og Lijfgar, færer nidur til Helvijtis, og j burt aptur þadann.

7. DROttinn giorer Faatækann og Rijkann, hann Lijtelæckar, og hann Upphefur.

8. Hann upplypter þeim Þurftuga vor Duptenu, og upphefur þann Faatæka vor Saur-

Saurnum, ſo hann ſetie hann a medal Hofdingianna, og lætur hann erfa Stool Dyrdarennar, Þvi ender Veralldarennar heyrer DROTTni til, og þar uppa ſette hann Jardarkringluna.

9. Hann mun vardveita Fætur ſinna Heilagra, enn þeir Ogudlegu ſkulu verda ad øngvo j Myrkrenu, þviad ſtoor Magt hiaalpar øngvum.

10. Þeir ſem kieppa vid DROTTinn ſkulu falla j grunn, hann lætur Skruggur af Himne koma yfer þa. DROTTinn mun dæma Veralldarennar Enda, og mun giefa ſijnum Kònge Magt, og upphefia Horn ſijns hins Smurda.

11. Og ElKana gieck heim til Ramath j ſitt Hwß, og Sveirnenn var Þienare Guds, hia Eli Kiennemanne.

II. 12. Enn Syner Eli voru jller Skalkar, þeir hirdtu ecke um DROTTinn, eige helldur um Preſtanna Riett vid Folked.

13 Þa nockur villde færa Foorn, þa kom Preſtſins Þienare, a medann Kioted ſaud, og hafde j Hende Sodkrook med þremur Greinum,

14. Og ſtack honum j Kietilenn, Pønnuna, eda Pottinn, og hvad hellſt ſem hann færde upp med Sodkroknum, þad tok Preſturenn þar af. So giordu þeir vid allt Jſraelis Folk, ſem kom til Silo.

15. Sømuleidis, aadur enn þad Feita var upptendrad, þa kom Preſtſins Þienare til þeirra ſem Foornena færdu, og ſagde, Gief mier Kiot ad ſteikia fyrer Preſtinn, þvi hann vill ecke taka ſoded Kiot af þier, helldur hraatt.

16. Ef nockur ſagde þa til hans, Laat þad Feita verda upptendrad, ſo ſem ſidur er til j Dag, og tak ſijdann hvad þitt Hiarta lyſter, þa ſvarade hann, þu ſkallt nu j Stad giefa mier þad, enn vilier þu ecke, þa ſkal eg taka þad med Vallde.

17. Þvi var þeſſara Sveina Synd miøg ſtoor fyrer DROTTni, þvi Folked laſtade DROTTins Matoffur.

18. Samuel þionade fyrer DROTTni, og Sveirnenn var umgyrdtur (b) Lijfkyrtle af Lijne.

(b) (Lijfkyrtle) þadvoru Kiennemannlig Klædi um þau ed talar Exod. 28, 4.

19. Þar til giørde hans Moder hønum eirn lijtenn Kyrtel, og færde hann hønum upp a a-kvednum Tijma, þa hun gieck upp med ſijnum Bonda, Foorner ad færa, j heyrelegann Tijma.

20. Og Eli bleſſade ElKana og hans Kvinnu, og ſagde, DROTTinn giefe þier Sæde af þeſſare Kvinnu, ſokum þeirrar Bænar ſem hun bad DROTTinn. Og þau geingu til ſijns Stadar:

21. Enn DROTTinn vitiade Onnu, ſo ad hun var oliett, og fædde Þria Sonu, og Tvær Dætur. Enn Sveirnenn Samuel vogs upp fyrer DROTTni.

22. Eli var ordenn miøg gamall, og heyrde allt þad ſem hans Syner giørdu øllu Jſraels Folke, og ad þeir laagu med þeim Kvinnum, ſem þionudu fyrer Samkundu Tialldbwdar Dyrum.

23. Og hann ſagde til þeirra, Þvi giøred þier ſlijkt? Þvi eg heyre yckar Vondt Athæfe af øllu þeſſu Folke.

24. Ecke ſo mijn Børn, Þad er ecke gott Rickte ſem eg heyre, þid komed Guds Folke til yfertrodſlu.

25. Þo ad Madur misgiøre vid Mann, þa kann Domarenn ad forlijka þad. Enn ef nockur ſyndgaſt jmoote DROTTni, hvør kann þa ad bidia fyrer hann? Enn þeir hlyddu ecke þeirra Fødurs Rauſt, þviad Drottinn villde ſla þa jhel,

26. Enn Sveirnenn Samuel gieck og vogs, og var þeckur bæde DROTTne og Mønnum.

II. 27. Enn þar kom eirn GUds Madur til Eli, og ſagde til hans, So ſeiger DROTTinn, Eg opennberade mig fyrer þijns Fødurs Hwſe, þa þeir enn voru j Egyptalande, j Hwſe Pharaonis.

28. Og

28. Og Eg vtvalde mier hann af ollum
Israels Kinkvijslum til Kiennemannsskapar,
ad hann skyllde færa foorner yfer mitt Alltare,
og upptendra Reykelse, og bera þann Lijf-
kyrtel fyrer mier, og Eg gaf þijnu Fodurs
Hwse allann Israels Barna Elld.

29. Hvar fyrer (c) bakspyrner þu vid mij-
num Foornum og Matoffre, sem eg baud (ad
offra) j Tialldbudenne? Og þu vegsamar
þijna Sonu, meir enn mig, ad þier aled ydur
med þvi besta af ollu Matoffre Israels Folks.

(c) (Bakspyrner) so sem Post: Giorn: 9, 5. Sanete Paall bakspyrner j mote broddinum, þad er, hann var ækafur og ovilldarsamur. 1 Reg. 2, 27.

30. Og þvi seiger DROTTinn Israels
GUD, Eg hefe talad, ad þitt Hws, og
þijns Fodurs Hws skyllde ganga fyrer mier
æfinnlega, enn nu seiger DROTTinn, Pad
sie langt fra mier, helldur hvor mig heidrar,
hann vil Eg heidra, og sa mig foraktar, hann
skal fyrerlitenn verda,

31. Sioa, sa Tijme skal koma, ad Eg
skal sundurbriota þinn Armlegg, og þijns
Fodurs Hwss Armlegg, og þar skal eingenn
gamall verda j þijnu Hwse.

32. Og þu skallt sioa þinn Mootstandara
j Tialldbudenne, j ollum þeim farsællegum
Hlutum sem Israel skal tilfalla, og þar skal
eingenn gamall verda j þijns Fodurs Hwse
æfennlega.

33. Po vil Eg ongvann upprœta af þier
fra mijnu Alltare, so ad þijn Augu vanmeg-
nest, og þijn Saal syrgie, og mestur fiolde
af þijnu Hwse skal deya, nær þeir eru kom-
ner til Manns.

34. Og þad skal vera þier eitt Merke, sem
koma skal yfer þijna Tvo Syne, Ophni og
Phineas, ad a einum Deige skulu þeir baa-
der deya.

35. Og Eg vil uppvekia mier einn Trw-
lyndann Kiennemann, hann skal giora þad
sem ad lijkar mijnu Hiarta og minne Saalu,
og Eg vil byggia honum eitt stadfast Hws,
ad hann gange alla Daga fyrer mijnum
Smurda.

36. Og hvor sem epter blijfur j þijnu Hw-
se, hann skal koma og falla nidur fyrer ho-
num, fyrer einn Silfurpening, og fyrer
einn bita Brauds, og skal seigia, Kiære,
laat mig noa einum Kiennemanns Hlut, so
eg meige eta einn bita Brauds.

# III. Capitule.

DRottenn kallar Samuel optlega.

Og sem Sveinnenn Samuel þionade
DROTTni under Eli, þa var Drot-
tins Ord (a) dyrt a þeim sama Tijma, og
þar urdu sialldann Vitraner.

(a) (Dyrt) Par voru ecke Predikarar, edur Kiennemenn anægianleger. Bibliunne hefur þa vered under Stool stunged, og eingenn hefur astundad Guds Ord, enn Samuel hefur komed þvi aa Fætur aptur.

2. Og þad skiede so a þeim sama Tijma,
ad Eli laa j sijnum Stad, og hans Augu
tooku til ad mirkvast, so hann matte ecke
sioa.

3. Og Samuel hafde lagt sig j Mustere
DROTTins, þar sem Guds Ork var,
adur enn Guds Lampar sloknudu.

4. Og DROTTinn kallade Samuel.
Hann svarade, Sioa, hier er eg.

5. Og hann rann til Eli, og sagde, Sioa
hier er eg, þu kallader mig. Hann sagde,
Eg kallade þig ecke, far j burt aptur ad sofa,
og hann gieck j burt, og lagde sig aptur til
Svefns.

6. Og DROTTinn kallade enn eitt sinn,
Samuel. Og Samuel stood upp, og gieck
til Eli, og sagde, Sioa, hier er eg, þu kal-
lader mig, hann sagde, Eige kallade eg þig,
minn Son, far burt aptur, og legg þig ad
sofa,

7. Enn Samuel þeckte þa enn ecke Drot-
tinn, og Ord DROTTins hafde þa enn
ecke birtst fyrer honum.

8. Og DROTTinn kallade Samuel j
Pridia Sinn. Og hann stood upp, og
gieck til Eli, og sagde, Sioa, hier er eg, þu

kallader mig. Pa merkte Eli ad DROTTinn kallade Sveinenn,

9. Og sagde til hans, Far j burt aptur, og legg þig ad sofa, og verde kallad a þig, þa svara þu, Tala þu DROTTinn, þvi þinn Pienare heyrer þad. Samuel gieck j burt, og lagde sig j sinn Stad.

10. Pa kom DROTTinn, og gieck þangad, og kallade sem fyrr, Samuel, Samuel! Og Samuel svarade, Tala þu, þvi þinn Pienare heyrer.

11. Og DROTTinn sagde til Samuel, Sioa, Eg giore eirn Hlut j Israel, so ad hvor þad heyrer þa skal klingia fyrer baadum hans Eyrum.

12. A þeim Deige vil Eg uppvekia yfer Eli þad. Eg hefe talad jmoote hans Hwse, Eg vil uppbyria og fullkomna þad.

13. Pvi Eg hefe undervijsad honum þad, ad Eg vil vera Domare yfer hans Hwse æfinnlega, sokum þess Misgiornings, ad hann visse hvornenn hans Syner breittu sier skammarlega, og hann leit ecke eitt sinn Reiduglega þar til.

14. Pvi soor Eg Eli Hwse, ad þesse Eli Huss Misgiorningur skyllde ecke verda forlijktur, hvorke med Foornum nie Matoffre, æfinnlega.

15. Og Samuel laa allt til Morguns, og lauk upp Dyrum a DROTTins Hwse. Enn ei þorde Samuel ad seigia Eli þessa Syn.

16. Pa kallade Eli hann, og sagde, Samuel, minn Son. Hann svarade, Sioa, hier er eg.

17. Eli sagde, Hvad er þad Ord sem þier er sagt? Leyn ongvo af fyrer mier, Gud giore þier þad og þad, ef þu leyner nockru fyrer mier, af þvi sem þier er sagt.

18. Pa sagde Samuel honum þad allt saman, og leynde ongvo af. Enn hann sagde, Hann er DROTTinn, hann giorer hvad honum er þeckt.

19. Samuel vox upp, og DROTTinn var med honum, og þar fiell ecke eitt af ollum hans Ordum a (b) Iord.

(b) (Iord) Pad vard ecke ad Hiegoma, og Gud took til ad openberast gnoglega a Samuels tijma.

20. Og allur Israels Lydur, fra Dan til BerSaba, visse, ad Samuel var DRottins Trulyndur Spaamadur.

21. Og DROTTinn openberadest upp fra þvi j Silo, þvi DROTTinn birtest Samuel j Silo, fyrer DROTTins Ord.

22. Og Samuel hoof upp ad predika fyrer ollum Israel.

## IV. Capitule.

(I) Um Olucku sem kom yfer Israel, og (II) yfer Eli.

I. Og þad skiede ad Israels Lydur foor wt j moot þeim Philisteis j Bardaga, og sette sijnar Herbwder hioa (a) EbenEzer. Enn þeir Philistei hofdu sett Herbwder j Aphek,

(a) (EbenEzer) þad er Fulltings Steirn.

2. Og bingust til Bardaga j moot Israel. Og Bardagenn ridladest vijda um Vollu, so ad Israels Lydur fiell fyrer Philisteis, Og þeir felldu af Fylkingum þeirra, j Morkenne, nær Fiogur Pusund Manns.

3. Enn sem Folked kom til Herbwda, þa sogdu þeir ellstu af Israel, Pvi mun DROTtinn hafa laated oss falla j Dag fyrer þeim Philisteis? Vier vilium sækia Saattmaals Ork DROTTins af Silo, og laatum hana vera millum vor, so hun frelse oss fra vorra Ovina Hondum.

4. Og Almwgenn sende bod til Silo, og liet sækia þadann DROTTins Zebaoths Saattmaals Ork, sem situr yfer Cherubim, Og þeir tveir Eli Syner voru þar med Guds Saattmaals Ork, Ophni og Phineas.

5. Og þegar Saattmaals Ork DROTtins kom j Herbwder, þa æpte allur Israel eitt miked Fagnadar Oop, so ad Iordenn tok epter.

6. Og sem Philistei heyrdu soddann Gledehroop, þa sogdu þeir, Hvad mun merkia soddann

soddann Oop mikels Fagnadar Hoareystes j Herbwdum Ebreskra Manna? Og sem þeir vissu, ad DROTTins Ørk var komenn j þeirra Herbwder,

7. Þa oottuduft þeir, og sogdu, Gud er komenn j Herbwdernar. Og sogdu enn framar meir, Vei oss, Ei giecf so til fyrr,

8. Vei oss, Hvor vill frelsa oss af þeim megtugum Guda Hondum? Þetta eru þeir Guder sem sloou Egyptaland med allra Handa Ploagum j Eydemorkenne.

9. So styrkest nu, og vered hrauster, þier Philistei, so þier þurfed ecke ad þiona Ebreskum, lijka sem þeir hafa þionad ydur, Vered Menn og strijded,

10. Philistei hlupu þegar a Israel med Bardaga, so ad Israelis Menn urdu slegner, og flwde hvor og eirn til sijns Heimelis, Og þar vard miog miked Mannfall, so ad þar fiellu af Israel þriatiju Þusund Footgaungu lids,

II. 11. Og DROTTins Ørk vard hertekenn, og þar doou bæder Syner Eli, Ophni og Phineas.

12. Eirn Madur af BenJamin flwde wr Bardaganum, og kom til Silo þann sama Dag, og hann hafde rifed sijn Klæde, og aused Molldu yfer Hofud sier.

13. Og sioa, þa hann kom þar jnn, sat Eli a einum Stoole, so hann moatte sioa til Vegarins, þvi hans Hiarta var hugsiukt um DROTTins Ørk. Og sem Madurenn kom j Stadenn, þa kunngiorde hann (hvad skied var) og allur Stadurenn hropade med hoarre Roddu.

14. Enn sem Eli heyrde hoareyste og hroop þa spurde hann, Hvad veit þetta Hark og Hoareyste? Þa kom sa same Madur þegar, og sagde Eli fra.

15. Enn Eli var oatta og nijutijge Aara gamall, og hans Augu voru ordenn ofkygn, so hann soa ecke,

16. Þa sagde Madurinn til hans, Eg er komenn, og flyda eg j Dag ur Bardaga. Eli svarade, Minn Son! Hvornenn geingur til,

17. Frietta-madurenn svarade honum, og sagde, Israels Folk flyde fyrer Philisteis, og þar var miked Mannfall a medal Folksins, So eru og dauder bæder þijner Syner, Ophni og Phineas, Hier med er Guds Ørk hertekenn.

18. Enn þegar hann nefnde Guds Ørk, þa fiell Eli aptur a bak af Stoolnum, hioa Portenu, og Hoalsbrotnade, og andadest, þvi hann var gamall, og Lijkama þungur Madur. Hann dæmde yfer Israel j Fiorutijge Aar.

19. Og hans Sonarkona, Phineas Kvinna, var med Barne, og oatte skamt epter ad fæda sitt Fostur, Enn sem hun heyrde þesse Tijdende, ad Guds Ørk var hertekenn, og ad hennar Moagur og Madur voru dauder, laut hun nidur, og vard liettare, þviad Jodsoott greip hana.

20. Og j þvi bile sem hun andadest þa sogdu þær Kvinnur sem soatu yfer henne, Oottast ecke, þviad þu hefur eirn ungann Son. Enn hun ansade ongvo, og giegnde þvi ecke.

21. Þa kallade hun Sveinenn Jcabod, og sagde, Dyrdenn er horfenn fra Israel, sokum þess, ad Guds Ørk var Hertekinn, og hennar Madur og Moagur voru dauder.

22. Hun sagde og enn j annad sinn, Vegsemdenn er j burt fra Israel, þvi Guds Ørk er Hertekinn.

## V. Capitule.

*Soattmoals Ørk DRottens kemur (I) til Asdod; (II) til Gath; (III) til Ekron.*

I. Og þeir Philistei toku nu Guds Ørk, og fluttu hana fra EbenEzer til Asdod,

2. Og lietu hana j Hws Dagons, og settu hana hioa Dagon,

3. Enn sem þeir af Asdod stodu oarla upp þess annars Dags, þa fundu þeir Dagon

dottenn a Jordu nidur, og loa þar a grufu fyrer Ørk DROTTins. Enn þeir tooku Dagon, og settu hann upp aptur j sinn stad.

4. Annars Dags, sem þeir stoodu snemma upp, þa fundu þeir Dagon enn aptur dottinn a Jord nidur, liggiande a grufu fyrer Guds Ørk, Enn hans Hofud og bœdar hans Hendur voru af hoggnar um Þroskull-denn, enn Bolurenn loa alleina fyrer sig þar uppa.

5. Þvi stijga ecke Dagons Prestar, og aller þeir sem ganga j Dagons Hwus, uppa Dagons Þroskulld j Asdod, jnn til þessa Dags.

6. Og (a) Hond DROTTins vard þung yfer þeim j Asdod, og fordiarfade þa, og sloo þa Menn j þeirra leyndelegum stodum, j Asdod, og ollum hennar Landamerkium.

(a) (DROTTins Hond) Nær Mannskiepnann og Skinsemenn rædur, þa forgeingur Guds Ord og oll hans Vegsemd, þa fellur sa Riette Kiennedomur aptur a bak, og deyr, Hvad allt skiedur af Guds Reide. Enn þeir sem Sigurenn vinna, hafa þar epter ongva hvijld j Samvitskunne. Þviad þar sem Guds Ord hefur ecke riettann frammgang, þa giorer þad Samvitskunne allskonar plagu, so sem Guds Ørk giorde hier Philisteonum, þangad til þeir ad sijdurstu verda ad medkienna Svijvirding sijna, ad þeir hafa rangsnued Guds Orde, og verda ad koma þvi a riettann veg aptur med virdingu, þad er hier avijsad med þeim Gull-gumpum og Musum, Hvoriar eckert annad þyda enn þa leynilegu Samvitskunnar plagu, sem umsijder mun opennberast af Guds Orde, so sem S. Paall 2 Tim. 3, 9. seiger, Þeirra Bernska mun opennber verda hvorium Manne.

II. 7. Enn þa Folked j Asdod sa, ad þad gieck so til, sagde þad, Latted Israels Guds Ørk ecke vera hia oss, þvi hans Hond er ofhord yfer oss, og yfer vorum Gude Dagon.

8. Og þeir sendu bod ut, og sofnudu ollum Philisteis Hofdingium til sijn, og sogdu, Hvad skulum vier giora med Israelis Guds Ørk? Þa svorudu þeir, Latted þa af Gad bera Israels Guds Ørk um kring. Og þeir baru Israels Guds Ørk um kring.

9. Og þa þeir baru hana umkring, þa vard eitt miked Upphlaup j Stadnum fyrer Guds Hond, og hann sloo Folked j Stadnum bæde stora og smaa, so ad þeir feingu leyndelegar Plagur, a leynelegum stodum.

III. 10. Þa sendu þeir Ørk DROTTins til Ekron. Enn sem Guds Ørk kom til Ekron, þa æptu þeir j Ekron, Þeir bera Guds Ørk umkring til mijn, ad sla mig j Hel og mitt Folk.

11. So sendu þeir bod, og samankolludu alla Hofdingia Philisteanna, og sogdu, Sended Israels Guds Ørk j burt aptur j sinn stad, so hun drepe ecke mig, nie mitt Folk. Þviad Guds Hond giorde eirn mikenn Okirrleik j allre Borgenne, med Mannfalle.

12. Enn þeir Menn sem ecke doou, þeir voru slegner j leyndum stodum (sijns Lijkama) so ad Ylfran Borgarennar gieck upp j Himenenn.

## VI. Capitule.

Saattmaals Ørk DRottins kemur til Bethsemes.

Og Ørk DROTTins var Sio Maanude j Lande Philistea.

2. Þa kolludu Philistei saman Presta sijna og Spaasagnar Menn, og sogdu, Hvad skulum vier giora af Ørk DROTTins? Seiged oss, hvar med vier skulum senda hana, j sinn stad? Þeir svorudu,

3. Ef þier vilied senda Israels Guds Ørk j burt, þa sended hana ecke tooma heim, helldur skulud þier bitala henne Skulldaoffur, so verded þier heiler, og munud þier faa ad vita, hvar fyrer hans Hond linner ecke af ydur.

4. Enn þeir svorudu, Hvad Skulldaoffur er þad sem vier skulum giefa honum? Þeir sogdu, Þad eru Fimm Bakhluter af Gulle giorder, og Fimm Mys af Gulle, epter tolu Fimm Philistea Hofdingia. Þvi þad hefur vered eins slags Plaaga yfer ydur ollum, og so ydar Hofdingium,

5. So skulud þier þau giora eins ad mind sem ydar Gumpa, og so sem ydar Mys, sem for-

fordiarfad hafa ydart Land, so þier giefed Israels Gude Dyrdena, Skie mœa, ad hans Hond liette af ydur, og ydar Gude, og so ydar Lande.

6. Þvi forherded þier ydar Hiortu, sem þeir j Egyptalande, og Pharao, forherdtu sijn Hiortu? Skiede þad ecke so, þa hann audsynde sig þeim, þa gaafu þeir Folkenu burtfarar leyfe? Og þad foor j burt.

7. So fared nu til, og giored eirn nyann Vagn, og taked tvær nybærar Kyr, þær sem alldrei hafa under Ok komed, og beited þeim fyrer Vagnenum, enn lœted þeirra Kaalfa vera heima.

8. Taked sijdann DRottins Ørk, og leggid hana a Vagnenn, og þau Hnoss af Gulle, sem þier giefed honum til Skulldaoffurs, þa legged eirn Kistel þar hiaa hennar sijdu, og sended hana af stad, og lœted hana fara.

9. Og hygged ad, Ef hun fer a þann Veg sinna Landamerkia til BethSemes, þa hefur hann giort oss allt þetta hid mikla Vonda, Enn ef ecke skier so, þa skulum vier vita, ad hans Hond hefur ecke snorted oss, helldur hefur oss þvilijkt skied af Tilfelle.

10. Og Folked giorde so, og þeir tooku tvær ungar nybærar Kyr, og beittu þeim fyrer Vagnenn, enn hielldu þeirra Kaalfum epter heima.

11. Og þeir settu Ørk DRottins j Vagnenn, og so Kistelenn, j hvorium ad voru Gullmysnar, og so Myndernar þeirra Bakhluta.

12. Og Kyrnar geingu riettann Veg til BethSemes rakleidis, og þær geingu baulande, og þær viku ecke af, hvorke til Hægre nie til Vinstre sijdu. Og hofdingiar Philisteanna geingu epter þeim allt til BethSemes Landamerkia.

13. Þeir BethSemitar voru ad Hveitekornskurde, j einum Dal, a þeim tijma, og þeir upplyptu sijnum Augum, og sœu Ørkena, og þeir gloddust, er þeir sœu hana,

14. Og Vagnenn kom ad Josua BethSemita Akre, og nam þar stadar. Og þar var eirn stoor Steirn, og þeir klufu j sundur Trien af Vagnenum, og offrudu DRottni Kunum til Brenneoffurs.

15. Og Levitarner toku Guds Ørk af (Vagnenum) og so Kistelenn, sem þar var hiaa, j hvorium ad þau Gullhnoss voru, og settu Ørkena a þann stoora Stein. Enn Folked af BethSemes færde Drottne, a þeim sama Deige, Brenneforner, og so adrar Foorner.

16. Og sem þeir Fimm Philistei Hofdingiar sœu þetta, sneru þeir aptur a þeim sama Deige til Ekron.

17. Þesser eru þeir Gullbakhluter sem Philistei gaafu DRottni til Skulldoffurs, Asdod eirn, Gasa eirn, Asklon eirn, Gath eirn, og Ekron eirn.

18. Og þær Gullmys, epter tolu allra Borganna Philistinorum, sem voru under Vallde þeirra Fimm Hofdingia, bæde af Mwrudum Borgum, og Þorpum, og til þess stoora Abel, sem þeir settu Guds Ørk uppa, allt til þessa Dags, a Josua BethSemiters Akre.

19. Og þad skiede, ad nockrer af þeim BethSemitis voru slegner, sokum þess, ad þeir sœu DROTTins Ørk, og hann sloo af Folkenu Fimmtiju Þusund Manns og Siotijge. Þa griet Folked, ad DROTTinn hafde giort so miked Mannfall.

20. Og Folked af BethSemes sagde, Hvor kann ad standast fyrer DROTTni so Heilogum GUde? Og til hvors skal hann fara fra oss?

21. Og þeir sendu Bod til Borgaranna j Kiriath Jearim, og letu seigia þeim, Þeir Philistei hafa flutt Ørk DROTTins aptur, komed ofann hingad, og flytied hana upp til ydar.

# VII. Capitule.

(I) Guds Ørk er færd inn j Abinadabs Hus; (II) Samuel predikar fyrer Israel ad giora a'varlega Jdran; (III) Israel vinnur Sigur a Philisteum; (IV) Gudrækeleg Hyggende Samuels.

I. So kom Folked af Kiriath Jearim, og flutte Ørk DROTTins upp, og færde hana jnn j AbiNadabs Hwos, j Gibea, og hans Son Eleasar helgudu þeir, ad hann skyllde vardveita Ørk DROTTins.

2. Og fra þeim Deige, ad Ørk DROTTins var j KiriathJearim, þa lidu langar stunder framm, þar til þad urdu Tuttugu aar, og allt Jsraels Folk (a) griet fyrer DROTTni.

(a) (Griet) Hørmudu og kløgudu fyrer DRottne Anaudar Ok Philistæorum.

II. 3. Þa talade Samuel til alls Jsraels Hwss, Ef ad þier snued ydur til DROttins af ollu ydar Hiarta, so legged fra ydur annarlega Gude, og Astharoth, og tilreided ydar Hiortu DROTTni, og þioned honum aleina, þa mun hann frelsa ydur af Hende Philistinorum.

4. Þa snørudu Jsraels Born burt fra sier Baalim, og Astharoth, og þionudu DRottni einum.

5. Og Samuel sagde, Samansafned ollum Jsrael til Mizpa, so ad eg meige bidia til DROTTins fyrer ydur.

6. Og þeir komu tilsamans j Mizpa, og jusu Vatn, og helltu þvi vt fyrer DROTTinn, og føstudu þann sama Dag, og sogdu j þeim sama Stad, Vier hofum syndgast j moote DROTTni. Og Samuel dæmde Jsraels Born j Mizpa.

III. 7. Enn sem Philistei heyrdu þad, ad Jsraels Born voru samannkomenn j Mizpa, þa fooru Hofdingiar Philistinorum upp j moote Jsrael. Og sem Jsraels Born heyrdu þad, oottudust þeir fyrer Philisteis.

8. Og sogdu til Samuels, Laat þu ecke af ad hroopa fyrer oss til DROTTins vors Guds, ad hann frelse oss fra Hende Philistinorum.

9. So took Samuel eitt Mioltur Lamb, og færde DROTTni eitt helllt Brenneoffur, og hroopade til DROTTins fyrer Jsrael, og DROTTinn bænheyrde hann.

10. Og þegar Samuel offrade Brenne-Offrenu, þa komu Philistei ad framm, ad strijda jmoote Jsrael. Enn DROTTinn liet dynia miklar Reidarþrumur yfer Philisteos a þeim sama Deige, og hrædde þa, so ad þeir fiellu fyrer Jsrael.

11. Epter þad fooru Jsraels Menn vt af Mizpa, og raaku Floottann þeirra Philistinorum, og slou þa allt til BethCar.

12. Sijdann took Samuel eirn Stein, og sette hann a millum Mizpa og Sen, og kallade hann EbenEzer, og sagde, Allt Hingad ad hefur DROTTinn hiealpad oss.

13. So urdu Philistei underþrickter, og komu ecke framarmeir j Jsraels Landamerke, og DROTTins Hond var moot Philisteis, so leinge sem Samuel lifde.

14. Sijdann feingu Jsraels Born þær Borger aptur, þær sem Philistei hofdu teked fra þeim, fra Ekron, og jnn til Gath, med þeirra Landamerkium, þær frelsade Jsrael aptur af Hende Philistinorum, þviad Jsrael hafde Frid vid Amorita.

IV. 15. Og Samuel dæmde Jsrael sijna Lijfs Tijd, og hann foor hvort Aar j kring til BethEl, og Gilgal, og Mizpa.

16. Og sem hann hafde dæmt Jsrael j ollum þessum Stodum,

17. Þa kom hann til Ramath aptur, þvi þar var hans Hwos, og þar dæmde hann Jsrael, og þar biggde hann DROTTNI eitt Alltare.

## VIII. Capitule.

(I) Jsrael bidur um Kong yfer sig; (II) Utskijring um hann, hvad hann munde sijdar giora.

I. Sem Samuel tok ad elldast sette hann Sonu sijna til Domara yfer Jsrael.

2. Hans Frumgietenn Son hiet Joel, enn sa annar Abia, og þeir voru Domendur j Bersaba.

3. Enn hans Syner geingu ecke epter hans Vegum, helldur hneigdust þeir til Agyrndar, og medtoku Giafur, og holludu Riettenum.

4. Þa

4. Pa samansøfnudust aller enn ellstu Menn af Jsrael, og komu j Ramath til Samuels,

5. Og søgdu til hans, Sioa, Þu ert nu ordenn gamall, og þijner Syner ganga ecke j þijn Footspoor, þar fyrer * set þu eirn Kong yfer oss, þann yfer oss kann ad dæma, so sem aller Heidingiar hafa.

* Giorrnb: Þøsi: 13, 21.

6. Enn þetta mislijkade Samuel, ad þeir søgdu, Gief oss Kong, sem kann ad dæma yfer oss, og Samuel bad til DROTTins.

7. Og DROTTinn sagde til Samuels, Hlyd þu Raust Folksins, j øllu þvi sem þad talar vid þig, þvi þeir hafa ecke votskwsad þier, helldur Mier, ad Eg skule ecke vera Kongur yfer þeim.

8. Þeir giøra vid þig so sem þeir hafa ætijd giort, fra þeim Deige sem Eg færde þa wt af Egyptalande, allt til þessa Dags, og hafa yfergiefed Mig, og þionad ødrum Gudum.

9 Þar fyrer hlyd þu nu þeirra Raust, enn þo skalltu vitna fyrer þeim, og undervijsa þeim Kongsins Riett, sem stiorna skal yfer þeim.

II. 10. Og Samuel sagde Folkenu øll þesse Ord DROttins, þeim sem beiddust Kongsins af honum.

11. Þetta skal vera Kongsins Riettur, sem stiorna skal yfer ydur, Hann skal taka ydar Sonu til sinna Vagna, og Reidmanna, sem ferdast skulu fyrer hans Vagne,

12. Og til Høfuds-Manna yfer Þusund, og yfer Fimmtijge, og Akurs-Manna, sem vinna skulu hans Akra, og til Kornskurdarmanna j hans Haustyrkiu, og ad þeir giøre hans Harneskiu, og þad sem heyrer til hans Vagne.

13. Ydar Dætur mun hann taka til Smyrslagiordar, og Matgiordar, og Braudbakstuts.

14. Hann skal taka ydar bestu Akra og Vijngarda, og Oleugarda, og giefa sijnum Þienørum.

15. Hier med skal hann og taka Tijund af ydar Sædum og Vijngordum, og giefa sijnum Hirdmonnum og Þienorum.

16. Hann skal og taka ydar Þienara og þionustu Pijkur, og ydar fegurstu Ungmenne, og ydar Asna, til sinnar Vinnu,

17. Hann skal og taka Tijunder af ydar Hiord, og þier skulud vera hans Þienarar.

18. Og þa þier kveined a þeim Tijma undann ydar Konge, sem þier hafed wtvaled ydur, þa skal DROTTJNN ecke bænheyra ydur a þeim sama Tijma.

19. Og Folked villde ecke hlyda Samuelis Raust, og sagde, J ongvann mata, helldur skal Kongur vera yfer oss.

20. So vier meigum vera so sem allar adrar Heidnar Þioder, so ad vor Kongur meige dæma yfer oss, og fara wt fyrer oss þa vier heyum Bardaga vora.

21. Þa hlydde Samuel øllu þvi sem Folked mællte, og tiade þetta fyrer DROTTins Eyrum.

22. Og DRottinn sagde til Samuel, Hlyd þeirra Raust, og gior þeim eirn Kong. Sijdann sagde Samuel til Jsraels Manna, Fared heim, hvor j sinn Stad.

# IX. Capitule.

(I) Sauls Frijdleike; (II) Erende; (III) Virding.

I. Madur eirn var þar af BenJamin, ad Nafne Kis, Sonur AbiEl, Sonar Zeror, Sonar Bechorath, Sonar Apia, Sonar eins Manns Jemini, nafnkunnugur Madur.

2. Kis atte eirn Son, sem hiet Saul, hann var ungur og asialegur Madur, so þar var eingenn dælegre a medal Jsraels Barna, hann var Høfde hærre enn aller adrer Menn.

II. 3. Kis, Fader Sauls, hafde misst sijnar Øsnur, Og hann sagde til sijns Sonar Sauls, Tak eirn af Þienørunum med þier, og tak þig upp, og far ad leita ad Øsnonum.

4. Og hann gieck j gegnum Ephraims

Fiall-

Fiallbyggder, og j giegnum Salisa Land, og
þeir fundu þær ecke, so geingu þeir j giegnum
Land Saalim, og þær voru þar ecke, þeir
geingu j giegnum Jemini Land, og fundu
þær ecke.

5. Enn er þeir komu j Landed Zuph, þa
sagde Saul til þess Sveins sem med honum
var, Kom, og skulum vid fara heim aptur,
Skie mꝏ, ad minn Fader hafe gleymt Ꝍsnu-
num, enn sie hugsiukur fyrer ockur.

6. Enn Sveirnenn svarade, Sioa, hier er
eirn nafnkunnugur Guds Madur j þessum
stad, og allt þad sem hann seiger, þad skie-
dur. Forum nu þangad, skie mꝏ, ad hann
seige ockur ockar Veg, þann vid skulum
ganga.

7. Saul svarade til sijns Sveins, Þo
vid forum þangad, hvad høfum vid ad giefa
þeim Manne? Þvi Brauded er j burt af
ockar Matar poka, so høfum vid og ongva
adra skeinking, sem vid meigum bera þeim
Guds Manne, Hvad høfum vid?

8. Enn Sveirnenn svarade Saul aptur,
og sagde, Sioa, eg hefe eirn Fiorda Part af
einum Silfur Sikle, hioa mier, þann vilium
vier giefa þessum Guds Manne, so hann seige
ockur ockar Veg.

9. Fordum tijd j Jsrael, þa Menn fooru
ad spyria Gud, þa var so Meal Manna,
Komed, og gøngum til Sioaandans, þviad
þeir sem nu kallast Prophetar þa somu kol-
ludu Menn j fordum tijd Sioaendur.

10. Saul sagde til sijns Sveins, Þu sag-
der vel, kom, og gøngum.

11. Enn sem þeir geingu ad Stadnum,
þar Guds Madur var, og komu upp til sta-
darins, þa fundu þeir Meyar nockrar, sem
geingu vt ad sækia Vatn, Og þeir søgdu
til þeirra, Er Sioaandenn hier?

12. Þær svorudu þeim, og søgdu, Joa,
Sioa, þar er hann, flyted yckur, þvi j Dag
kom hann j Stadenn, sokum þess, ad j Dag
skal Folked offra a Hædenne.

13. Nær þier komid jnn j Stadinn, þa
finned þid hann ꝏdur enn hann fer j Hædena
ad snæda. Þviad eingenn Madur fær sier
Mat fyrr enn hann kiemur, þviad hann bles-
sar offred, epter þad borda þeir sem bodner
eru, Þar fyrer fared upp, þviad strax nu
munud þid finna hann.

III. 14. Enn sem þeir komu upp til Stada-
rins, og voru midt j Stadnum, Sioa, þa
gieck Samuel vt j moote þeim, og villde
fara upp a Hædena.

15. Enn DRottinn hafde birt fyrer Ey-
rum Samuel a Deigenum fyrr, ꝏdur enn
Saul kom, og sagt,

16. Eg vil senda eirn Mann til þijn, a
Morgun um þennann tijma, af Lande Ben
Jamin, Hann skalltu smyria til eins Høfdin-
gia Yfer mitt Folk Jsrael, ad hann frelse mitt
Folk af Hende þeirra Philistinorum. Þviad
Eg hefe sied til mijns Folks, og þeirra Kall
er komed fyrer mig.

17. Nu sem Samuel sꝏ Saul, svarade
DROTTinn honum, Sioa, þad er sa Ma-
dur, af hvorium eg sagde þier, ad hann skyll-
de stiorna yfer mitt Folk.

18. Þa gieck Saul til Samuels j Porte-
nu, og sagde, Seig mier, Hvar er hier Sioaan-
dans Hws?

19. Samuel svarade Saul, og sagde,
Eg er Sioaandenn, gack upp undann mier a
hædena, þvi ad þid skulud eta med mier j
Dag, Enn a Morgun vil eg lꝏta þig fara,
og eg vil seigia þier allt þad byr j þijnu
Hiarta.

20. Og um þær Ꝍsnur, sem þu hefur misst
fyrer þremur Døgum, Ver nu ecke Hugsiu-
kur, þviad þær eru fundnar. Og hvorium
skal til heyra allt þad ed besta, sem er til j
Jsrael? Skal þad ecke vera þitt, og alls þijns
Fodurs Hwss?

21. Saul svarade, Er eg ecke eirn Son
af Jemini, og af þeirre minnstu Ættkvijsl j
Jsrael, og mijn ætt er hin sijdsta a medal
alls BenJamins Kins og Affkvæmis, Hvar
fyrer talar þu fyrer mier soddann?

22. So tok Samuel Saul og hans
Svein,

Svein, og leidde þa uppa (Bord) salenn, og sette þa efst a medal þeirra sem bodner voru, þad var nær þriatijger Manns.

23. Og Samuel sagde til Kocksins, Ber hingad þad Sticke sem eg fieck þier, og baud ad þu skyllder geyma þad hioa þier. Pa bar Kockurenn eirn Boog framm, og þad sem þar hieck vid.

24. Og hann lagde þad fyrer Saul, og sagde, Sioa, þad hefur verid leift, legg fyrer þig og et, þvi þad hefur vered geymt handa þier allt til þessa, þa eg jnn baud Folkenu. So aat Saul med Samuel þann Dag.

25. Nu sem þeir geingu ofann af Hædinne til Stadarins, talade hann vid Saul uppa Pakenu.

26. Og þeir stoodu tijmanlega upp, og sem ad daga took, þa kallade Samuel Saul uppa Paked, og sagde, Statt upp, ad eg laate þig fara, og Saul stood upp, og þeir geingu baader vt, hvor med odrum, hann og Samuel.

27. Enn sem þeir komu ad enda Stadarins, þa sagde Samuel til Sauls, Seig þijnum Sveine, ad hann fare undann ockur, og Sveirnenn gieck framm undann þeim, Enn þu statt nu kirr, so ad eg meige kunngiora þier hvad Gud hefur sagt.

## X. Capitule.

(I) Saul er Smurdur til Konungs af Samuel og (II) Stadfestur j sinne Rijkes-Stiorn af Folkenu

1. Epter þetta tok Samuel, eitt Glas med Oleum, og hellte yfer hans Hofud,* minntest vid hann, og sagde, Sier þu, ad DRottinn hefur smurt þig til eins Hofdingia yfer sijna Erfd?

[* Upphaf Konga Stiornar, Anno Mundi 2870. Epter Utgaungu Israels af Egyptalande, 1091. fyrer Christi hingad burd 1069 aar. Og varde 523. Aar, allt til Foreydsla Jerusalem.]

2. Og sem þu skilur nu vid mig, þa muntu finna Tvo Menn hioa Rachels Grof, j Landamerkium BenJamin j Zelzah, þeir munu seigia þier ad Osnurnar eru fundnar, þær þu gieckst ad leita epter, Og sioa, þinn Fader hefur aflagt ahyggiu Asnanna, enn er nu hugsiukur fyrer yckur, og seiger, Hvad skal eg til giora um minn Son?

3. Enn sem þu snyr þier frammveigis þar fra, þa muntu koma til Eikarinnar Thabor, þar munu þrijr Menn mæta þier, hvorier upp fara til Guds j Bethel. Eirn ber þriu Kid, enn annar þriar Braud-kokur, enn þridie Flosku med Vijn.

4. Og þeir munu heilsa þier vinsamlega, og giefa þier Tvo Braud, þau skallt þu medtaka af þeirra Hondum.

5. Þessu næst muntu koma uppa Guds Hæd, þar sem eru Herbvoder þeirra Philistinorum, Enn þa þu kiemur þar j Stadinn, þa mun Flockur Spaamanna mæta þier, þeir sem koma ofann af Hædinne, og þar mun ganga fyrer þeim Psalterium, Bumbur, Pijpur, og Horpur, og þeir munu vera ad spaa.

6. Og Guds Ande mun koma yfer þig, og þu skallt spaa med þeim, og so skalltu verda ad odrum Manne.

7. Og sem þesse Teikn eru nu framm komenn, þa gior hvad þier ad Hondum kiemur, þviad Gud er med þier.

8. Og þu skallt fara ofann undann mier til Gilgal, Sioa, þangad vil eg koma ofann til þijn, til ad offra þar Brennefoornum og Packar Offre. Enn þu skallt bijda j Sio Daga, þar til eg kiem til þijn, og kunngiore þier hvad þu skallt giora.

9. Og sem Saul snere sijnum Herdum, ad hann geinge fra Samuel, þa gaf Gud honum annad Hiarta, og oll þesse Teikn komu framm, a þeim sama Deige.

10. Og sem þeir komu ad Hædinne, Sioa, þa kom eirn Spaamanna Flockur j moote honum, Og Guds Ande kom yfer hann, so ad hann spaade med þeim.

11. Enn sem þeir aller saau hann, sem hann aadur þeckti, ad hann spaade med Spaamonnum, þa sagde hvor til annars, Hvad

kiemur ad Syne Kis? Hvort er Saul j tolu Spaamannanna?

12. Og eirn af þeim svarade og sagde, Hvor er þeirra (a) Fader? Þadann er komed það Moaltæke, Er Saul og so a medal Spaamanna?

(a) Fader) það er, Lærefed: þa svaa, það er ecke af Forelldrum fædt, helldur af Gude, hann er saa riette Faderenn.

13. Enn sem hann hafde utspaad, þa kom hann upp a Hædina.

14. Fodurbroder Sauls sagde til hans, og hans Sveins, Hvort foorud þid? Þeir svorudu, ad leita ad Osnum, enn sem vid saaum þær voru þar ecke, komum vid til Samuels?

15. Þa svarade Fodurbroder Sauls, Seig mier, Hvad sagde Samuel til yckar.

16. Saul svarade sijnum Fodurbrodur, Hann sagde ockur ad Osnurnar være fundnar, Enn eige sagde hann honum hvad Samuel hafde mællt um Kongs Rijked.

II 17. Epter þetta liet Samuel kalla Folked samann fyrer DRottni j Mizpa,

18. Og sagde til Israels Barna, Þetta seiger DRottinn Israels Gud, Eg færda Israel af Egyptalande, og frelsade ydur af Hondum þeirra Egyptsku, og af Hondum allra þeirra Kongarijkia, sem ydur þvingudu.

19. Og þier hafed j Dag utskufad ydrum Gude, sem ydur frelsad hefur af allre ydar Olucku, og Hormungum, og þier seiged til hans, Set eirn Kong yfer oss. Nu vel, Ganged þa framm fyrer DRottinn, epter ydar Kinkvijslum og Ættum.

20. Enn sem Samuel hafde samankallad allar Israels Ættkvijsler, þa fiell Hlutur yfer BenJamins Ætt.

21. Og sem hann leidde Ætt BenJamins framm, med sijnum Ættmonnum, þa fiell Hlutur yfer Matri Ætt, og yfer Saul, Son Kis. Og þeir leitudu epter honum, Og fundu hann ecke.

22. Þa spurdu þeir DROTTinn ad framar meir, Mun hann enn nu koma hingad? DROTTinn svarade, Sioa, hann hefur faled (b) sig under Kerenu.

(b) Heidur skulu Menn forðast og Raudugeir medtaka Stiornina.

23. So fooru þeir þangad, og soktu hann þadann. Og sem hann gieck a mille Folksins, þa var hann Hofdinu hærre enn allt Folk.

24. Og Samuel sagde til alls Folksins, Þar siaed þier hann sem DROttinn utvalde, Þviad eingenn er honum lijkur a medal alls Folksins. Þa haut upp allt Folked, og sagde, Lucku sæe Kongurenn!

25. Samuel sagde Folkenu allann Kongs Rijkesins Riett, og skrifade hann j eina Bok, og lagde hana fyrer DROTTinn. Sijdann liet Samuel allt Folked fara j burt, hvorn j sitt Hws.

26. Saul gieck og heim til Gibea, og eirn hlutur Hersins gieck med honum, hvorra Hiortu ad Gud hrærde.

27. Enn nockrer Lausingiar sogdu, Hvad skal þesse hiaalpa oss? Og þeir Forsmadu hann, og færdu honum ongva Giafu, Enn hann liet sem hann heyrde það ecke.

# XI. Capitule.

Saul vinnur Sigur a Ammonitum.

Enn Nahas, sa Ammonite, ferdadest upp, og settest um Jabes j Gilead, og aller Menn j Jabes sogdu til Nahas. Gior Saattmaala vid oss, so vilium vier þiona þier.

2. Enn Nahas Ammonite svarade þeim, Med þessu moote vil eg Saattmaal giora vid ydur, ad eg vil stijnga hid hægra Auga wt, a ollum ydur, og giora ydur til Haadungar a medal alls Israels.

3. Þa sogdu Olldungarner af Jabes til hans, Gief oss Sio Daga Frest, so ad vier meigum senda Bod til allra Landamerkia j Israel, og ef þar finnst eingenn sa sem oss frelsar, þa vilium vier koma wt til þijn.

4. So komu þesser Sendemenn fyrer Saul j Gibea, og þeir kunngiordu soddann fyrer Folksins Eyrum, þa upphoof allt Folk sijna Raust, og griet.

5. Og

5. Og sioa, J þessu bile kom Saul af Akre, og gieck epter (Ardur) Uxum, og sagde, Hvad er Folkenu ad þad grætur? Og þeir kunngiordu honum Erende þeirra Manna sem komner voru af Jabes.

6. Þa stirktest GUds Ande yfer Saul, þa hann heyrde þesse Ord, og hann vard miøg reidur.

7. Og hann took eitt par Uxa, og hioo þad j sundur j sticke, og sende þau til allra Jsraels Landamerkia, med þessum Sendemonnum, og liet seigia, Hvør sem ecke vt fer og filger Saul, og Samuel, þa skal so giøra hans Uxum. Þa fiell DROTTins Otte yfer Folked, og þad foor vt so sem eirn Madur være.

8. Og hann skickade þeim nidur j Ordu, j Basek, og Jsraels Born voru ad tolu Þriu Hundrud sinnum Þusund Manns, enn Juda Børn Þriatiju Þusund.

9. Og þeir søgdu til Sendebodanna sem komner voru, Seiged þeim Mønnum j Jabes j Gilead so, Þier skulud fa hiaalp a Morgun, þegar sem Soolenn tekur ad skijna heitt. Enn sem Sendebodarner komu, og kunngiordu þetta Borgarmonnum j Jabes, urdu þeir glader.

10. Og Mennerner j Jabes søgdu (til sinna Ovina) a Morgun skulum vier koma vt til ydar, giøred þa vid oss allt hvad þier vilied.

11. Og ad odrum Morgne skipte Saul Folkenu j Þriar Fylkingar, og þeir komu um Morgunvøkuna j Herbvdernar, og sloou þa Ammonita, allt til Dagurenn vard heitur, enn þeir sem epter urdu dreifdust so vijds vegar j sundur, ad af þeim voru ecke Tveir og Tveir tilsamans.

12. Þa sagde Folked til Samuel, Hvørier eru þeir Menn sem þad søgdu, Skal Saul rijkia yfer oss? Laated þa koma hingad, so ad vier drepum þa.

13. Saul sagde, Þar skal eingenn deya a þessum Deige, þvi DROTTinn hefur giefed Hiaalpræde Jsrael.

14. Samuel sagde til Folksins, Komed, og skulum vier fara j Gilgal, og endurnya þar Kongs Rijked.

15. Sijdann ferdadest allur Almvgenn til Gilgal, og settu þar Saul til Kongs fyrer DROTTni j Gilgal, og offrudu Packar-Offre fyrer DROTTni. Og Saul og aller Jsraels Menn urdu þar miøg glader.

## XII. Capitule.

Samuel seger af sier Domara Embætted.

Þa sagde Samuel til alls Jsraels, Sioa, eg var hlydenn ydar Roddu, um allt þad sem þier søgdud mier, og eg hefe nu sett eirn Kong yfer ydur.

2. Og sioaed nu, ad ydar Kongur geingur þar framme fyrer ydur. Enn eg em nu ordenn gamall og graahærdur, og mijner Syner eru hia ydur. Og eg hefe nu geinged fyrer ydur fraa mijnum Ungdome, allt til þessa Dags.

3. Sioaed, eg em nu hier, svared nu a mote mier fyrer DROTTne, og hans Smurda, ef eg hefe teked fra nockrum Manne hans Uxa edur Asna? Eda hafe eg synt nockrum Manne Ofrijke eda Oriett? Eda hafe eg þegid Giafer af nockurs Manns Hende, og laated (a) blinda mijn Augu? Þa vil eg gialda ydur þad aptur.

(a) (Blinda Augu) Gaafur og Skeinkingar blinda Augu þeirra Vijsu.

4. Þeir svørudu, Hvorke hefur þu synt oss Ofrijke, nie Oriett, og eckert vr nockurs Manns Hende teked.

5. Hann sagde til þeirra, DROTTinn sie Vitne j giegn ydur, og hans Smurdur, a þessum Deige, ad þier hafed ecke neitt funded j minne Hende. Þeir søgdu, Jaa, sieu þeir þess Vitne.

6. Og Samuel sagde til Folksins, Jaa, Sa GUd sem skickade Mosen og Aaron, og færde ydar Forfedur af Egyptalande,

7. So ganged nu framm, ad eg meige ganga j Riett vid ydur fyrer DRottne, um

alla DRottins Velgiorninga, sem hann hefur veitt ydur og ydrum Forfedrum.

8. Pa Jacob var komenn j Egyptaland, kolludu ydrer Forfedur til DRottins, og hann sende Mosen og Aaron, ad leida ydar Forfedur af Egyptalande, og liet þa bwa j þessum Stad.

9. Enn þa þeir gleymdu DRottni sijnum Gude, sellde hann þa under Valld Sissera, hvor ed var Hofuds-Madur j Hazor, og under Valld þeirra Philistinorum, og under Valld Kongsins Moabitarum, hvorier ad heriudu a þa.

10. Enn þeir kolludu aptur til DROTTins, og sogdu. Vier hofum syndgast j þvi, ad vier yfergeafum DROTTinn, enn þionudum Baal og Astharoth. Enn frelsa oss nu af Hondum vorra Ovina, þa viljum vier þiona þier.

11. Pa sende DROTTinn Jerub Baal, Bedan, Jephthah, og Samuel, ad frelsa ydur af ollum ydar Ovina Hondum allt umkring, og liet ydur bwa ohrædda.

12. Enn þa þier saud, ad Nahas, Ammons Barna Kongur, kom jmoote ydur, sogdud þier til mijn, Eige þu, helldur skal eirn Kongur rijkia yfer oss, þar þo ad DRottinn ydar GUd var ydar Kongur.

13. Par hafed þier nu ydarn Kong, hvorn þier hafed wtvaled og beded um, þvi sioa, DROTTinn hefur sett eirn Kong yfer ydur.

14. Sie þad so, ad þier ottest DROttinn og þioned honum, og hlyded hans Raust, og erud ecke Munne DROTTins ohlyduger, þa skulud bæde þier, og ydar Kongur, sem stiornar yfer ydur, fylgia DROTTni ydrum Gude,

15. Enn ef þier hlyded ecke Raust DRottins, helldur erud hans Munne ohlyduger, þa mun Hond DROTTins vera a moote ydur, og a moote ydrum Fedrum.

16. Ganged hier nu framm, og sioaed þann mikla Hlut sem ad DRottinn mun giora fyrer ydrum Augum.

17. Er nu ecke Hveitekornskurdar Tijme? Enn eg vil akalla DRottinn, ad hann skal lata koma Regn og Reidarþrumur, so ad þier skulud formerkia og sioa þa miklu Vondsku, sem þier hafed giort j Auglite DROTTins, ad þier hafed bedest Kongs.

18. Og sem Samuel kallade til DROTTins, þa liet DRottinn koma Regn og Reidarþrumur a þeim sama Deige. Pa ottadest allt Folked miog DRottinn og Samuel.

19. Og sogdu aller til Samuels, Bid DRottinn GUd þinn fyrer þijnum Þienorum, so vier deyum ecke, þviad þa Vondsku logdum vier ofann a allar vorar Synder, ad vier badunst Kongs yfer oss.

20. Pa sagde Samuel til Folksins, Ottest þier ecke, þier hafed sannarlega giort allt þad Vonda, enn vijked þo ei tilbaka fra DRottni, helldur þioned DROTTni af ollu ydar Hiarta,

21. Og snued ydur ecke til þess Foanyta, þviad þad stodar ecke par, og kann ecke ad hiealpa, þviad þad er til einskis,

22. Enn DRottinn yfergiefur ecke sitt Folk, fyrer sokum sijns stoora Nafns, þviad DROTTinn hefur uppbyriad ad giora ydur sier sialfum til Eigenn Folks.

23. Enn þad skal vera langt fra mier, ad eg syndgest so jmoote DROTTni, ad eg late af ad bidia fyrer ydur, og ad læra ydur þann rietta og gooda Veg.

24. Ottest þar fyrer ad eins DROTTinn, og þioned honum trulega af ollu Hiarta, þviad þier hafed sied þa stooru Hlute sem hann hefur giort vid ydur.

25. Enn ef þier giored þad hid Illa, þa skulud bæde þier, og ydar Kongur, fyrerfarast.

## XIII. Capitule.

Saul heriar a Philistea.

Saul hafde nu vered Kongur eitt aar, sem hann hafde rijkt Tvo aar yfer Jsrael,

2. Pa wtvalde hann sier Þriar Þusunder Manna af Jsrael, Tvær Þusunder voru med Saul j Michmas, og uppa Fiallenu BethEl, og

og eitt Pusund liet hann vera med Jonathan j Gibea BenJamin, enn annad Folked liet hann fra sier fara, hvorn til sinna Heimkynna.

3. Og Jonathan slo þa Philisteos j þeirra Herbwdum, sem voru j Gibea, og þeir Philistei friettu þad. Og Saul liet bloasa j Basvonur um allt Landed, og liet seigia, Loated þa Ebreßku þad heyra.

4. Og allur Israel heyrde sagt, Saul hefur (a) sleiged Herbwder Philistinorum, þviad Israel lycktade jlla fyrer þeim Philisteis. Og allt Folked var kallad til Sauls j Gilgal.

(a) (Sleged Philisteos) Svo ad þeir burtsludu hugbreystust aptur.

5. Þa søfnudust Philistei samann, ad heria a Israel, med Priatiju Pusund Vagna, Sex Pusund Riddara, og ad auk annad Folk, so margt sem SioafarSandur, og ferdudust upp, og settu Herbwder fyrer Austann Beth Aven, j Michmas.

6. Enn sem Israels Menn soau, ad þeir voru Neydstadder (þviad Folked var hrædt) foalu þeir sig j Hellerum, Gioam, Biorgum, Holum og Grysium.

7. Enn þeir Ebrei geingu yfer Jordan j Land Gad, og j Gilead. Enn Saul var enn nu j Gilgal, og allt Folk var skielft orded, sem honum epterfilgde.

8. Þa beid hann sio Daga, allt til þeirrar tijdar sem til sett var af Samuel. Enn sem Samuel kom ecke til Gilgal, þa dreifdest Folked fra honum.

9. Þa sagde Saul, Færed mier hingad Brennefoorner og Packlætisfoorner. Og hann offrade Brennefoornum.

10. Enn sem hann hafde fullkomnad Brenneoffred, Sioa, þa kom Samuel, Pa gieck Saul wt a moote honum, til ad bleßa honum.

11. Þa sagde Samuel, Hvad hefur þu giort? Saul svarade, Eg soa ad Folked tvijstradest fra mier, enn þu komst ecke j vakvedenn tijma, enn Philistei voru komner samann j Michmas.

12. Þa sagde eg, Nu koma Philistei hingad ofann til mijn j Gilgal, Enn eg hefe elge tilbeded fyrer Auglite DROttins, þa dirfdest eg til ad fæ̈ra Brennefoorner.

13. Samuel svarade Saul, Pu giørder foavijslega, og hefur ei hallded DROTTins Guds þijns Bod, sem hañ baud þier. Pvi hañ hafde stadfest þitt Rijke yfer Israel æfinlega,

14. Enn nu skal þitt Rijke ecke vera stødugt. DROTTenn hefur funded sier eirn Mann epter sijnu Hiarta, hønum hefur DROTTinn boded ad vera Høfdinge yfer hans Folk, Pviad þu hefur ecke hallded DROTTins Bodord.

15. Og Samuel reis upp, og gieck fra Gilgal, til Gibea BenJamin. Enn Saul talde þad Folk sem hioa hønum var, nær sex Hundrud Manns.

16. Saul og hans son Jonathan, og þad Folk sem var hioa hønum, voru a BenJamins Hædum. Enn Philistei høfdu sijnar Herbwder j Michmas.

17. Og þar fooru ut þrenner Flockar, fra Herbwdum Philisteanna, ad foreyda Landed. Eirn Flockurenn snere sier a þann Veg sem liggur til Ophra, j Lande Sual,

18. Sa annar Flockur snere a þann Veg sem liggur til BethHoron, Enn sa þridie Flockur snere sier a þann Veg sem liggur til Zeboims Dals j Eydemorku.

19. A þessum tijma fannst eingenn Smidur j øllu Israels Lande, Pvi Philistei hugsudu, Peir Ebrei giora Sverd og Spiot.

20. Og allur Israel neyddest ad fara ofann til Philisteaña, þa nockur hafde eitt Plogjarn, Graftol, Oxar, edur Lioae ad hvessa,

21. Og þa Eggenn a Lioaunum, Graftoolunum, og Forkunum, og Oxunum, var sliof ordenn, og oddarner ohvasser.

22. Nu sem sa Dagur kom, ad þeir skylldu beriast, þa fannst hvorke Sverd nie Spiot j Hende alls þess Folks sem var med Saul og Jonathan, utann Saul og hans son høfdu Vopn.

23. Og Herbwder Philisteanna fooru wt framm yfer Michmas.

# XIV. Capitule.

Afreks Verk (I) Jonathans, og (II) Sauls.

I. Pad bar til eirn Dag, ad Jonathan, son Saul, sagde til Skialldsveins sijns, Kom, forum hier yfer um, til Herbwda Philisteanna, sem eru þar hinumeigunn, Enn þetta sagde hann ecke sijnum Fodur.

2. Enn Saul var staddur vid endann a Gibea, under einu Granatatrie, hvort ed stod j Forstadnum, og þad Folk sem var hia honum var nær sexhundrud Manns.

3. Enn a þeim tijma var Ahia, sonur Ahitob, Broder Jcabods, sonar Phineas, sonar Eli, DRottins Kiennemadur j Silo, og klædest Lijfkyrtlenum. Folked visse og eige helldur, ad Jonathan var geingenn j burtu.

4. Enn j þeim stad sem ad Vegurenn lꝏ, þar Jonathan gieck yfer um til Herbwda Philisteanna, var Eljnstige upp ad ganga, millum tveggia Hamra, einn var þessumeigenn, annar hinumeigenn, annar hiet Bozez, annar hiet Senne,

5. Annar lꝏ ad Nordann, a mots vid Michmas, enn annar Sudur j moote Gaba.

6. Pa sagde Jonathan til sijns Skialldsveins, Kom, lꝏtum ockur fara yfer um til Herbwda þeirra Oumskornu, Mꝏ vel skie ad DROttinn votriette nockud fyrer ockur. Þviad þad er Gude ecke um megn, ad hiꝏlpa so fyrer fꝏ sem marga.

7. Hans Skialldsveirn svarade honum, Gior hvad þier byr j Hiarta, Far, Siꝏ, eg er med þier, so sem þitt Hiarta vill.

8. Jonathan svarade, Nu vel, þa vid komum yfer um til Folksins, og þeir siꝏ ockur,

9. Ef þeir þa seigia so, Vered kirrer, þar til vier komum til ydar, Pa skulum vid vera kirrer, og fara ecke upp til þeirra.

10. Enn ef þeir seigia so, Komed hingad upp til vor, Pa skulum vid fara upp til þeirra, þa hefur DROTTinn giefed þa j ockar Hendur, Og þad skulum vid hafa ad marke.

11. Nu sem þeir komu j Augsyn beggia Philisteanna Herbwda, þa sogdu Philistei, Siꝏ, þar eru Ebrei nu vtkomner af sijnum Holum, þar þeir hafa falest.

12. Og þeir vr Herbwdonum toludu til Jonathan, og hans Skialldsveins, og sogdu, Komed upp hingad til vor, so vilium vier læra ydur þad. Pa sagde Jonathan til sijns Skialldsveins, Far epter mier, DRottinn hefur giefed þa j Israels Hendur.

13. Og Jonathan klifrade upp epter a Hondum og Footum, og hans Skialldsveirn epter honum. Pa fiellu þeir fyrer Jonathan, og hans Skialldsveirn vo jafnann epter honum,

14. So ad j þvi firsta slage, sem Jonathan og hans Skialldsveirn veittu, voru nær tuttugu Menn, so sem a hꝏlfu Akurs vꝏme, sem tveir Uxar kunnu ad eria.

15. Og skielkur kom yfer Herbwdernar um Morkena, og yfer allt Folked j Herbwdonum, og yfer Rꝏnsflockenn, so ad Landed skalf, Þviad sa skielkur var af Gude.

16. Vardhallds Menn Saul, j Gibea BenJamin, sꝏu þetta, ad Hoopurenn rann undann, og tvijstradest j sundur, og hvor hratt odrum til skada.

17. Pa sagde Saul til Folksins, sem voru hiꝏ honum, Telied og hygged ad, hvor þar er j burt geingenn fra oss. Og sem þeir toldu, Siꝏ, þa var Jonathan og hans Skialldsveirn ecke þar.

18. Pa sagde Saul til Ahia, Lꝏttu hingad Guds Ork (þviad Guds Ork var þann tijma hiꝏ Israels Bornum).

19. Enn þa ad Saul var ad tala þetta vid Prestinn, þa vard gnyr og upphlaup j Herbwdum þeirra Philistinorum enn stærra. Enn Saul sagde til Kiennemannsins, Lꝏt þijna Hond af.

20. Og Saul kallade, og allt þad Folk sem med honum var, og þeir komu til Bardagans, og siꝏ þu, ad þa var hvors eins Sverd j moot odrum, og þar vard eitt miked hark.

21. Enn

21. Enn þeir Ebrei, sem fyrr voru hiaa Philisteum, og upp hofdu fared med þeim j Herbudernar um kring, þeir geafu sig til Jsrael, sem ad voru med Saul og Jonathan.

22. Og aller Jsraels Menn, sem sig hofdu huled a Fiallenu Ephraim, þa þeir heyrdu ad Philistei flydu, geafu þeir sig a bak epter þeim j Strijded.

23. Og so hiaalpade DRottinn Jsrael a þessum tijma, og Bardagenn hiellst allt til Beth Aven.

24. Enn sem Jsraels Menn voru mædder ordner a þessum Deige, þa særde Saul Folked, og sagde, Bolvadur sie sa Madur sem nockud etur til Kvollds, so ad eg fae hefnt mijn a mijnum Ovinum. Og eingenn aat þar nockud, af ollu Folkenu.

25. Og sem allt Lands Folked kom j hockurn Skoog, þa var þar Hunang a Morkenne.

26. Og sem Folked gieck j Skogenn, Sia, þa rann Hunanged, Enn eingenn Madur drap sinne Hende a þad, ad bera ad sijnum Munne, Þviad Folked óttadest Eidenn.

27. Enn Jonathan hafde ecke heyrt, ad hans Fader hafde sært Folked, Og hann rietke ut sinn Staf, sem hann hafde j sinne Hende, og drap endanum j Hunanged, og bar Hondena ad Munne sier, Þa upplukust hans Augu.

28. Þa svarade eirn af Folkenu og sagde, Þinn Fader hefur sært Folked, og sagde, Bolvadur verde hvor sa Madur sem etur nockud a þessum Deige, Og Folked vard vanmegna.

29. Þa sagde Jonathan, Minn Fader hefur sturlad Landed, Siaed hvorsu mijn Augu upplukust, sokum þess, ad eg smackade lijted af þessu Hunange.

30. Med þvi ad Folked mætte ecke eta j Dag af Herfange sinna Ovina, enn þad fann, Þvi hefur ecke þetta slag stærra kunnad ad verda moote þeim Philisteis.

31. Og þeir sloou þa Philisteos a þeim sama Deige, fra Michmas, og allt til Ajalon. Og allt Folked var miog mæddt.

32. Og Folked bio til Herfanged, og tooku Uxa, og Saude, og Kaalfa, og slatrudu a Jordu, og aatu so (a) Bloodugt.

(a) (Bloodugt) Blooded var ecke af þveiged.

33. Saul var þad kunngiort, Sia, Folked syndgast fyrer DRottni, ad þad etur Blood. Þa sagde Saul, Þier hafed jlla giort, vellted nu einum storum Steine hingad til mijn.

34. Og Saul sagde framar meir, Skiped ydur a mille Folksins, og seiged þvi, ad hvor um sig fære sijn Naut og Saude hingad til mijn, og slaate þad hier, svo þier meiged eta þad, og syndgast ecke j moote DRottne ad eta med Bloode. Og allt Folked særde hvor um sig sinn Uxa, med sinne eigenn Hende, til hans, um Nottena, og slatrudu þvi þar.

35. Og Saul biggde DRottne eitt Alltare, þad er þad first a Alltare sem hann upp biggde DRottne.

36. Og Saul sagde, Lootum oss fara ofann epter þeim Philisteum j Nott, og rænum þa, þar til ad Lios Dagur er, so vier lootum onguann af þeim komast undann, þeir svorudu, Gior allt hvad þig lyster. Enn Presturenn sagde, Forum hingad til Guds.

37. Og Saul spurde Gud, Skal eg fara ofann epter þeim Philisteis, og villt þu giefa þa j Jsraels Hendur? Enn Saul fieck eckert Andsvar a þeim tijma.

38. Þa sagde Saul, Looted hingad ganga allann Hoop Folksins, rannsaked og skaaed med hvorium su Synd er a þessum tijma.

39. Þvi so sannarlega sem DROTTinn Jsraels Frelsare lifer, þo hun sie a mijnum syne Jonathan, þa skal hann deya, Og eingenn gaf honum andsvar af ollu Folke.

40. Og hann sagde til alls Jsraels, Skipest þier j eirn stad, enn eg, og mijnn son Jonathan, vilium vera odru meiginn. Folked svarade Saul, Gior hvad þier lijkar.

41. Sijdann sagde Saul til DROT-Tins Israels GUds, Laat koma upp hid rietta. Pa fiell Hlutur yfer Saul og Jonathan, enn Folked gieck frij undann.

42. Pa sagde Saul, Hluted nu mille mijn og mijns Sonar Jonathan. Pa fiell Hluturenn yfer Jonathan.

43. Og Saul sagde til Jonathan, Seig mier hvad þu hefur giort? Jonathan kunngiorde honum þad, og sagde, Eg bergde a Litlu Hunonge, med þvi Kefle sem eg hefe j minne Hende, og sioa, þar fyrer moa eg deya.

44. Pa sagde Saul, GUd giore mier þad og þad, Jonathan, þu hlytur vissulega ad deya,

45. Enn Folked sagde til Saul, Skal Jonathan deya; sem ad giort hefur so stoora Hioalp j Israel? Langt sie fiærre þvi, So Sannarlega sem DROTTinn lifer, skal ecke eitt Hoar falla af hans Hofde a Jord, þviad GUd hefur verkad fyrer hann j Dag. So frelsade Folked Jonathan, ad hann hiellt sijnu Lijfe.

46. Epter þad foor Saul upp fra þeim Philisteis, enn þeir Philistei fooru til sijns Stadar.

II. 47. Enn sem Saul hafde jnnteked Rijke yfer Israel, heriade hann jmoot ollum sijnum Ovinum, allt um kring, jmoote Moabitum, jmoote Ammonita Bornum, jmoot Edomitum, jmoot Kongunum af Zoba, jmoot þeim Philisteis, og hvort hann snere sier þa reffsade hann,

48. Og hann safnade Her ad sier, og sloo Amalechita, og frelsade Israel af allra þeirra Hende sem þeim þreyngdu.

49. Enn Saul oatte fyrer Syne, Jonathan, Isui, og Malchisua, hans Tvær Dætur hietu so, su hin frumgietna Merob, su yngsta Michol.

50. Og Kvinna Saul hiet Ahinoam, Dotter Ahimaas. Enn hans Hershofdinge hiet Abner, Son Ner, hvor ed var Fodurbroder Sauls.

51. Kis var Fader Saul, og Ner, Fader Abners, var Abiels Son.

52. Þar var eitt hardt Strijd jmoote Philisteum, so leinge sem Saul lifde. Og hvar Saul sioa eirn sterkann og goodann Strijds-Mann, þann took hann til sijn.

## XV. Capitule.

(I) Ohlijdne Sauls vid GUd; og (II) hans Utskufan fraa GUde.

I. Og Samuel sagde til Sauls, DROTtinn sende mig, ad eg skyllde smyria þig til Kongs yfer hans Folk Israel. Þar fyrer heyr nu Rodd Orda DROTTins.

2. So seiger DROTTinn Zebaoth, Eg hefe minnst a þad sem Amalech gierde Israel, og hvorsu hann stood j Veige fyrer Israel, þa hann foor af Egyptalande.

3. So far þu þangad, og sloa jhel þa Amalechita, og foreyd þeim med ollu þvi sem þeim tilheyrer. Þirm þeim ecke, helldur sloa þu jhel bæde Menn og Kvinnur, Born og Briostmylkinga, Naut og Saude, Ulfallda og Asna.

4. Þetta kunngiorde Saul Folkenu, og hann talde þa j Telaim, Tvo Hundrud Þusund Footgongu lids, og Tiju Þusund Manns af Juda.

5. Og þegar sem Saul kom til Borgar Amalechitarum, þa sette hann Launsoatur hioa einum Læk,

6. Og liet seigia Kenitum, Fared burt hiedann, vijked, og fared nidur fra Amalechitum, so eg fordiarfe ydur ecke med þeim, þvi þier giordud Miskunarverk moote ollum Israels Bornum, þa þau ferdudust af Egyptalande. So fluttust Kenitar burt fra Amalechitum.

7. Pa sloo Saul Amalechita, fra Hevila, og allt til Sur, sem liggur yfer fra Egyptalande.

8. Og took Hondum Agag, Kong Amalechita, lifanda, enn foreydde ollu Folke med Sverds eggium.

9. Enn Saul og Folked þirmde Agag, og þvi sem gott var, Saudum, Nautum og Lombum, sem aled var, og ollu þvi sem gott var, og villdu ecke foreyda þvi, enn hvad slæmt var og afleitt þad dreapu þeir giorvallt.

II. 10. Pa skiede Ord DROTTins til Samuels, og sagde.

11. Mig jdrar þess, ad eg setta Saul til Kongs, þvi hann hefur snwed sier til baka aptur fra mier, og ecke giort epter mijnum Ordum. Vid þetta vard Samuel reidur, og kallade til DROTTins alla þa Nott.

12. Og Samuel took sig upp ad mæta Saul a þeim Morgne. Honum var þad undervijsad ad Saul være komenn til Carmel, og hefde uppsett þar eitt Sigurmerke, og være farenn um kring, og komenn ofann til Gilgal.

13. Enn sem Samuel kom til Saul, sagde Saul til hans, Blessadur siert þu DRottni, eg hefe fullkomnad Ord DROttins.

14. Samuel svarade, Hvad mun þa þyda sa Jarmur Sauda sem eg heyre fyrer mijnum Eyrum, og so Baul þeirra Nauta sem eg heyre?

15. Saul svarade, Þeir hafa fært þad fra Amalechitum, þvi Folked þirmde þvi enu besta af Nautum og Saudum, ad foornfæra þad DROTTni Gude þijnum, enn odru hofum vier foreydt.

16. Samuel svarade Saul, Laat þier seigiast hvad DROttinn hefur talad vid mig a þessare Nott. Hann sagde, Seig framm.

17. Samuel svarade, Er ecke so, þa þu varst Lijtill fyrer þijnum Augum, þa vardst þu ad Hofde a medal Israelis Kinkvijsla, og DRottinn smurde þig til Kongs yfer Israel?

18. Og DROTTinn sende þig þann Veg og sagde, Far þu, og drep glæpafullt Folk Amalech, og heria þu a þa, þar til þu hefur afmaad þa.

19. Þvi hlydder þu ecke Raust DROTTins? Helldur snerer þu þier til Herfaangsins, og giorder jlla j Auglite DROTTins.

20. Saul svarade Samuel, Eg hlydda Raust Drottins, og eg foor þangad sem DRottinn sende mig, og eg færda hingad Agag, Amalechita Kong, og eg foreydde Amalech.

21. Enn Folked tok Herfaanged, Saude og Naut, þad sem best var medal þess Bannfærda, til ad offra DRottni þijnum GUde j Gilgal.

22. Samuel sagde,* Ætlar þu ad Drottinn hafe Lyst a Offre og Brennefoornum, so sem ad hlyda Raust Drottins? Sioa, Hlydne er betre enn Offur, og Gaumgiæfne betre enn Feitleyke Hrwtanna. * Matth. 9, 13. c. 12, 7.

23. Þvi Ohlydne er Galldra Glæpur, og ad vera þverbrotenn er Skwrgoda Bloot, og Afguda Dijrdkan. Og sokum þess, ad þu hefur j burt kastad Orde DROTTins, þa hefur hann og so burt kastad þier, so þu skallt ecke Kongur vera.

24. Pa sagde Saul til Samuels, Misgiort hefe eg, ad eg hefe afrækt DROTTins Bod og þijn Ord, þvi eg oottadest Folked, og hlydde þess Raust.

25. Fyrergief mier nu þessa Synd, og snu aptur med mier, ad eg tilbidie DROTTinn.

26. Samuel sagde til Saul, Eige sny eg aptur med þier, þviad þu hefur kastad fra þier Guds Orde, so hefur og DROTTinn burt kastad þier, ad þu skallt ecke vera Kongur yfer Israel.

27. Enn sem Samuel snere sier, og villde ganga j burt, þa greip Saul j Skickiu laf hans, so hann afreif þad,

28. Pa sagde Samuel til hans, DRottinn hefur rifed j Dag Israels Kongsrijke fra þier, og giefed þijnum Naunga þad, sa sem betre er enn þu,

29. Enn Israels Kappe Lijgur ecke, og þad (a) angrar hann ecke, þvi hann er ecke eirn Madur, so hann kunne nockurs ad jdra.

(a) (Angrar) GUds Orde skulu menn ecke breita, nie forbetra þad, þad vill ei laata umbreita sier.

30. Saul sagde, Eg hefe syndgast, enn veit mier nu þo Vegsemd fyrer Olldungum

miins Folks, og fyrer Israel, og snw um med mier, ad eg tilbidie DROTTinn þinn Gud.

31. Pa snere Samuel aptur, og foor epter Saul, so ad Saul tilbæde DROTTinn.

32. Pa sagde Samuel, Leid Agag, Amalechs Kong, hingad til miin. Og Agag gieck diarflega fyrer hann, og sagde, So skal vtdriisa Daudans Beiskleika.

33. Samuel sagde, So sem þitt Sverd hefur rænt Kvinnurnar siinum Bornum, so skal þiin Moder rænast siinum Bornum a medal Kvenna. So hioo Samuel Agag sundur j stickie, fyrer DROTTne, j Gilgal.

34. Og epter þetta ferdadest Samuel j burt til Ramath. Enn Saul foor upp til siins Hwss j Gibea Saul.

35. Og epter þetta sa ecke Samuel Saul, allt til siins Daudadags. Enn þo syrgde Samuel Saul, af þvi ad þad angrade DROTTinn, ad hann hafde sett Saul til Kongs yfer Israel.

# XVI. Capitule.

(I) David er smurdur til Konungs; og (II) kalladur Inni Hollena.

I. Og DROTTinn sagde til Samuel. Hvorsu leinge villt þu syta Saul, hvorium Eg hefe j burt kastad, ad hann sie ecke Kongur yfer Israel? Fyll þitt Hörn med Vidsmior, og far af Stad, Eg vil senda þig til Isai Bethlehemita, þvi Eg hefe sied mier fyrer eirn Kong, a medal hans Sona.

2. Samuel svarade, Hvornenn skal eg fara þangad? Saul spyr þad og slær mig ihel. DROTTinn sagde, Tak þier eirn Kalf af Nautunum, og seig so, Eg er komenn ad foornfæra DROTTni.

3. Og þu skallt bioda Isai til Offurs, siidann vil eg viisa þier, hvad þu skallt giora, ad þu skallt smyria mier hann sem eg seige þier.

4. Samuel giorde sem DROTTinn baud honum, og kom til Bethlehem. Og Olldungum Stadarins hnickte vid, og þeir geingu vot jmoote honum, og sogdu, Er Fridur þat þu kiemur?

5. Hann sagde, Jaa, eg em komenn ad færa Foorner DROTTNE, helged ydur, og komed med mier til Offurs. Og hann helgade Isai og hans Syne, og baud þeim til Offursins.

6. Pa þeir komu nu inn, þa horfde hann a Eliab, og hugsade med sier, Mun þesse vera sa hinn Smurde fyrer DROTTne.

7. Enn DROTTinn sagde til Samuel, Vird þu ecke aalit hans, nie Liikamans voxt, Eg hefe burt kastad honum, Þvi þad geingur ecke til so sem Madurenn sier, Madurenn sier þad sem fyrer Augunum er, Enn DRottinn aaliitur Hiartad.

8. Pa kallade Isai Abinadab, og liet hann koma framm fyrer Samuel. Og hann sagde, Eige hefur DROTTinn helldur þennann vtvaled.

9. Pa liet Isai Samma ganga framm. Enn Samuel sagde, Eige hefur DRottinn helldur vtvaled þennann.

10. Epter þad liet Isai sina sio Sonu ganga framm fyrer Samuel. Enn Samuel sagde til Isai, Ongvann þessara hefur DROTTinn vtvaled.

11. Pa sagde Samuel til Isai, Eru þetta Sveinarner aller? Hann svarade, Er enn epter sa minnste, og sioa, hann giæter Sauda. Pa sagde Samuel til Isai, Send þu af stad og lattu sækia hann, Þviad vier setiunst ecke fyrr nidur, enn hann kiemur hingad.

12. Pa sende hann af stad, og liet sækia hann, Og hann var raudleitur, fagureygdur, og friidur synum. Pa sagde DRottinn, Statt upp og smyr hann, þviad hann er þad.

13. Pa tok Samuel sitt Vidsmiors Horn, og * smurde hann, midt a mille sinna Brædra. Og Ande DROTTins magnadest yfer David, fra þeim Deige, og þadann j fra. Enn Samuel took sig upp, og gieck til Rama.

* Post: Giorn: 13, 22.

II. 14. Enn Ande DROTTins hvarf fra Saul,

Saul, og Illur Ande fra DROTTne giørde hann miøg sturladann,

15. Pa sogdu Þienarar Saul til hans, Sioa, eirn Illur Ande fra Gude sturlar þig miøg.

16. Seige vot Herra til sinna Pienara, þeirra sem standa fyrer honum, ad þeir leite upp þann Mann sem vel kann ad sloa Horpu, so ad nær sa Ille Ande Guds kiemur yfer þig, ad hann leike þa med Hende sinne, so þad meige lietta þijnu Meine.

17. Pa sagde Saul til sinna Pienara, Fared, og leited ad þeim Manne, sem vel kann ad leika a Hliodfæra streinge, og leided hann til mijn.

18. Pa svarade eirn af Sveinunum, og sagde, Sioa, eg hefe sied eirn, son þess Manns sem ad heiter Isai, og byr j Bethlehem, hann kann vel a Streingleik, hann er sterkur Madur, vijgur vel, og skinsamur j Mealum Manna, og dægelegur, og DROTTinn er med honum.

19. Pa sende Saul bod til Isai, og liet seigia hønum, Send þiin Son David til mijn, þann sem Hiardar giæter.

20. Pa tok Isai eirn Asna, og Braud, og eina Flosku Vijns, og eitt Kid, og sende þad Saul med sijnum Syne David.

21. Og so kom David til Saul, og þionade honum, Og hann hafde hann miøg kiærann, og hann vard hans Skialldsveirn.

22. Og Saul sende bod til Isai, og liet seigia hønum, Leifdu David ad vera hioa mier, þviad hann hefur funded Nead fyrer mijnum Augum.

23. Enn þa Guds Ande kom yfer Saul, þa took David sijna Horpu, og liek med sinne Hende, þa endurlifnade Saul, so ad hønum batnade, og sa Illur Ande flyde fra hønum.

## XVII. Capitule.

(I) Grimmleike Goliaths Risa, og (II) hversu ad hann var drepinn.

I. Nu draga Philistei Her samann til Bardaga, og sofnudust samann j Socho, i (Lande) Juda, og settu sijnar Herbuder millum Socho og Aseka, vid Lands enda Damim.

2. Enn Saul og Israels Menn komu samann, og settu sijnar Herbuder j Eikedal, og bjugguſt til Bardaga a moote Philisteum.

3. Enn Philistei stoodu ødrumeigenn a eirnre Hæd, og þeir Israelitar ødrumeiginn a annare Hædinne, so ad eitt Dalverpe var a mille þeirra.

4. Pa gieck framm, af Herbudum Philisteanna, eirn Rise, hann hiet Goliath, af Gath, hann var sex Alna og þverar Handar Hear,

5. Hann hafde Eirn Hioalm a Hofde, og Hringa panzara, og Vigtenn a hans Panzara var fimm Þusund Siklar Kopars,

6. Brynhosur hafde hann af Eyre, à Beinum, og Eyrskiolld a Herdum.

7. Og hans Spiotskapt var sem Vefiar rifur, og Jaarned hans Spiots vo sex Hundrud Siklos jaarns, Og hans Skialldsveirn gieck fyrer honum.

8. Og hann stood vid, og hroopade a Israels Herlid, og sagde til þeirra, Þvi erud þier vt farner ad buaſt til Bardaga? Er eg ecke eirn Philisteus, enn þier Þionar Sauls, Utvelied Eirn af ydur, og læted hann koma nidur hingad til mijn,

9. Ef hann gietur bareſt vid mig, og yfer unned mig, so skulum vier vera ydrer Pienarar. Enn ef eg giet yfer unned hann, og fellt hann, þa skulud þier vera vorer Þienarar, og þiona oss.

10. Og þesse Philisteus sagde, Al þessum Deige hef eg hædelega talad vid Israels Her, Læted mig faa þann Mann, ad hann gange a Hoolm vid mig.

11. Nu sem Saul, og allur Israels Lydur heyrde þessa Philistei Ord, þa bloskrade þeim, og þeir urdu miøg hrædder.

12. David var eins Manns Son af Ephratha, af Bethlehem, j Juda, sem hiet Isai, hann hafde atta Sonu, og var gamall

mall a Dogum Saul, og vel alldradur a millum annara Manna.

13. Og þrijr þeir stærstu syner Jsai voru j Herfør med Saul, sa ellste hiet Eliab, annar Abinadab, enn þridie Samma,

14. Enn David var yngstur. Enn sem þesser þrijr ener ellstu fooru j Striid med Saul,

15. Þa foor David heim aptur fra Saul, ad giæta Hiardar sijns Fodurs j Bethlehem.

16. Enn þesse Philisteus gieck snemma framm, bæde Kvolld og Morgna, og baud sig framm j fiorutijge Daga.

17. Enn Jsai sagde til sijns Sonar Davids, Tak fyrer þijna Brædur þetta Epha Axa, og þesse Tiju Braud, og far sem skiotast til þinna Brædra, þar þeir eru j Hernum,

18. Og þessa Tiju ferska Osta, og ber þa til Hofudsmannsins, og verd vijs um þijna Brædur, hvort þeim lijdur vel, og tak hvad þeir bifala þier.

19. Enn Saul, og þeir aller Jsraels Menn voru j Eikedal, og børdust vid Philisteana.

20. Þa reis David upp snemma um Morgunenn, og fieck Hyrdurum Saudena, og gieck sinn Veg, og bar þad sem Jsai hafde boded honum, og kom ad Vagnborgenne. Þa var Herfolked vt fared, og komed j sijn Herklæde, og æpte Heroop,

21. Þviad Jsrael hafde fylkt sijnu Lide, þeir Philistei voru og buner til Bardaga a moot þeirra Her.

22. David liet j geymslu þad hann bar, hia þeim sem Fansenn geymde, og rann framm til Hersins, gieck þar inn, og heilsade sijnum Brædrum.

23. Og sem hann var ad tala vid þa, Sia þu, j þvi kom framm sa Rise, sem hiet Goliath, Philisteus, af Gath, hann gieck framm af Her Philistinorum, og talade so sem fyrr, Og David heyrde þad.

24. Enn hvor Madur J Jsrael, þa hann leit þennann Mann, flyde hvør um sig fyrer honum, og miklum otta sloo yfer alla.

25. Og hvor Madur af Jsrael sagde, Hvort saastu þennann Mann framm ganga? Þviad hann er komenn ad tala Hædung til Jsrael. Og hvor sem hann feller þann vill Kongurenn sæma miklum Audæfum, og giefa honum sijna Dottur, hann vill og giora frialst hans Fodurs Hws j Jsrael.

26. Þa sagde David til þeirra Manna sem stoodu hia honum, Hvad skal sa faa sem vinnur þennann Philisteum, og burt tekur þetta Brijxle af Jsrael? Þvi hvor er þesse hinn Oumskorne Philisteus, sem so brijxlar þeim Lifanda Guds Her?

27. Þa andsvarade Folked David so sem adur, Þvilijkt skal sa faa sem feller þennann Mann.

28. Enn sem hans ellste Broder Eliab heyrde hvad hann talade vid Mannenn, vard hann reidur vid David, og sagde, Þvi komst þu nidur hingad? Og hvar fyrer skildest þu vid þa faeina Saude geymslulausa j Eydemørku? Þecke eg ofdirfd þijna vel, og illsku Hiarta þijns, þu ert hingad komenn ad sia Bardagann.

29. David svarade, Hvad hef eg þa giort, er mier þad ecke bifalad?

30. Og hann snere fra honum til annars, og talade somu Ord sem fyrr. Enn Folked svarade honum sem adur.

II. 31. Og sem þeir heyrdu þesse Ord, sem David sagde, þa kunngiordu þeir þad Saul. Og hann liet kalla a hann.

32. Og David sagde til Saul, Einskis Manns Hiarta þarf ad skielfast þess vegna. Þinn Þienare skal fara ad beriast vid þennann Philisteum,

33. Þa sagde Saul til Davids, Eige gietur þu fared j moote þessum Philisteo, ad beriast vid hann, þvi þu ert eirn Smaasveirn, enn hann er Bardaga Madur fra sijnum Barndome.

34. David sagde til Saul, Þinn Þienare giætte Hiardar Fodur sijns, og þar kom eitt

Leon, og eirn Biorn, og took eirn Saud j burt fra Hiordenne.

35. Og Eg rann epter honum, og sloo hann, og eg frelsade so Saudenn wr hans Munne. Enn sem hann reiste sig upp j moote mier, þa greip eg hann, og took eg j hans Kampa, og sloo eg hann so j Hel.

36. So hefur þinn Þienare dreped bæde Leon og Biarndyr. So mun og verda þesse Oumskorne Philisteus so sem eirn af þeim. Þvi hann hefur lastad Lifanda Guds Her.

37. Og David sagde, Sa DROTTinn sem frelsade mig fra Leonenu og Byrnenum, hann mun frelsa mig fra þessum Philisteara. Þa sagde Saul vid David, Far þu, DRottinn sie med þier.

38 Og Saul færde David j sijn Klæde, og sette Eyrhiaalm a hans Hofud, og færde hann j einn Panzara.

39. Og David gyrdte hans Sverde yfer sijn Klæde, og took til ad ganga, þvi hann hafde alldrei reynt þad fyrr. Þa sagde David til Saul, Eige kann eg ad ganga so, þvi eg hefe eige þar vana til, og hann lagde (Herklædenn) af sier.

40. Og hann tok sinn Staf j Hond, og wtvalde sier fimm slietta Steina, af einum Læk, og kastade þeim j sijna Fiaartosku, sem hann hafde, og j Seckenn, og took Stafslaungu j Hond sier, og gieck so j moote þessum Philisteara.

41. Goliath gieck framm, og foor j moot David, og hans Skialldsveirn gieck undann honum.

42. Enn sem Philistearenn glørde ad lijta vid, og sa David, forsmaade hann hann, Þviad David var eirn smaasveinn, raudleitur og dægelegur.

43. Og Philistearinn sagde til Davids, Hvort em eg Hundur, ad þu kiemur med eirn Staf jmote mier? Og hann bølvade David vid sinn Gud,

44. Og sagde til hans, Kom til mijn, eg skal þitt Holld giefa Fuglum Loptsins, og Dyrum Jardar.

45. Enn David sagde til Philistearans, þu kiemur jmote mier med Sverd, Spiot, og Skiolld, enn eg kiem jmote þier j DROttins Zebaoths Nafne, hvor ad er Gud Israels Hers, þann þu hefur spottad.

46. A þessum Deige mun DROTTinn giefa þig j mijna Hond, so ad eg skal fella þig, og taka þitt Hofud af þier, og giefa j Dag Lijkama Philistea Hers Fuglum Loptsins, og Hrækvikendum Jardar, so ad øll Lond vite, ad Israel hefur Eirn Gud,

47. Og allur þesse Allmwge skule faa ad vita, ad Hiaalp DROTTins er ecke komenn under Sverde og Spiote, þviad Bardagenn er DROTTins, og hann mun giefa ydur j vorar Hendur.

48. Enn sem Philistearinn stod upp, gieck hann framm, og ætlade ad David. Þa skundade David, og rann fra Hernum jmot Philistearanum.

49. Og David greip sinne Hende j Toskuna, og tok einn Stein þar wt af, og sleyngde sijdann, og hæfde beint framann j Ennid a Philistearanum, so ad Steinenn feste j hans Enne, enn Goliath fiell a framm til Jardar a sitt Andlit.

50. So sigrade David þennann Philisteum med Slaungu og Steine, og slo hann jhel. Og þa David hafde eckert Sverd j sinne Hende,

51. Hliop David ad Philistearanum, og took hans Sverd, og rickte þvi wr Balenu, og drap hann, og hioo af honum Hofuded þar med. Enn þegar ad Philistei saau þad, ad þeirra sterkaste (Kappe) var fallenn, logdu þeir a Flotta.

52. Enn Israels Menn og Juda, toku sig upp, æptu Herop, og soktu epter Philisteanum, allt þangad til Menn komu j Dalenn, og allt ad Ekrons Portdyrum. Og Philistei fiellu slegner a Veiginum til Porta Gath og Ekron.

53. Og Israels Born hvurfu aptur af

Flottarekstrenum þeirra Philisteis, og rændu Herbuder þeirra.

54. Enn David tok Philistearans Høfud, og bar þad til Jerusalem, enn Vopn hans lagde hann j Tialldbuod sijna.

55. J þann Tijma, sem Saul sa, ad David gieck ut a mote þeim Philisteo, sagde hann til Abners, sijns Hershøfdingia, Hvørs Son er sa Sveirn? Abner svarade, So sannarlega sem þijn Sæl lifer, Kongur, þa veit eg þad ecke.

56. Kongurenn svarade, Far og spyr ad, Hvørs Son ad sa Sveirn sie.

57. Pa David kom nu aptur, og hafde dreped Philistearann, took Abner hann, og leidde hann jnn fyrer Saul, enn David hiellt a Philistearans Høfde j sinne Hende.

58. Og Saul sagde til hans, hvørs Son ert þu unge Sveirn? David svarade, Eg er Sonur þijns Þienara Jsai j Bethlehem.

## XVIII. Capitule.

(I) David elskast af Jonathan; (II) Kvinnurnar hrosa hønum; (III) Hann verdur fyrer Hatre af Saul; og (IV) eignast Michol.

I. Nu sem David hafde endad Rædu sijna vid Saul, þa kveiktist Aastar Band j Hiarta Jonathæ og Davids, og Jonathan elskade David sem sitt eiged Hiarta.

2. Og a þeim Deige took Saul David ad sier, og liet hann ecke koma aptur j sijns Fødurs Hws.

3. Enn Jonathan og David bundu Sættmaal med sier, þvi hann elskade hann so sem sitt eigid Hiarta.

4. Og Jonathan tok sinn Kyrtel af sier, sem sialfur hann jklæddist, og gaf David, þar med sijna Skickiu, sitt Sverd, Boga sinn, og Bellte,

5. Og David gieck ut þangad sem Saul sende hann, og hegdade sier viturlega, og Saul sette hann yfer Strijds-Folked, og hann var Giedþeckur øllum Mønnum, og Sauls Þienørum.

II. 6. Pad bar til, ad þa hann var komenn aptur fra Bardaga Philisteanna, ad Kvinnur af øllum Jsraels Borgum geingu ut jmot Saul Konge, med Saung og Danse, med Bumbum, med Glede, og med Gigium.

7. Og Kvinnurnar sungu til skiptis, lieku fyrer, og søgdu, Saul vann Sigur a Þusund, enn David a Tiju Þusund.

III. 8. Pa reiddist Saul miøg, og þad Ord mislijkade hønum, og sagde, Þær gaafu David Tiju Þusund, enn mier eina Þusund, hvad skortar nema Kongdominn?

9. Og Saul leit ecke riettum Augum til Davids, fra þeim Deige, ætijd sijdann.

10. A næsta Deige kom Jllur Ande Guds yfer Saul, og hann spaade heima j sijnu Hwse, enn David liek a Hørpu sijna med Hende sinne, sem hann var daglega vanur. Og Saul hiellt a einu Spiote,

11. Og skaut þvi til hans, og hugsade, eg vil nijsta David med Spiote upp vid Veggenn. Enn David veik sier Tvær Reisur fra hønum.

12. Og Saul ottadest fyrer David, þviad DROttinn var med hønum, og var vikinn fra Saul,

13. Epter þad skickade Saul David fra sier, og sette hann Høfdingia yfer Þusund Menn, og hann gieck ut og jnn fyrer Folkenu.

14. Og David hiellt sig forsiðalega j øllum sijnum Giorningum, og DRottinn var med hønum.

15. Og sem Saul sa þad, ad hann hegdade sier so forsiðalega, þa hræddist hann David.

16. Enn allur Jsraels Lydur, og Juda, elskade David, þviad hann gieck ut og jnn fyrer þeim.

17. Og Saul mællte vid David, Siaa, eg vil gipta þier mijna ellstu Dotter Merob, vertu ad eins hraustur, ad heya Bardaga DROTTins. Pvi Saul hugsade svo, Ei skal eg leggia mijnar Hendur a hann, helldur skal hann koma j Hendur þeirra Philisteis.

18. Enn

18. Enn David svarade Saul, Hvor er eg, og hvad er mitt Lijf, og mitt Fødurkin j Israel, ad eg skule vera Kongs Mægur?

19. Nu sem sa Tijme kom, ad Merob, Dotter Sauls, skyllde giptast David, þa vard hun giefenn Adriel Meholathiter.

IV. 20. Enn Michol, Dotter Sauls, elskade David. Sem Saul fieck þad ad vita, sagde hann, Þad er riett,

21. Eg vil giefa honum hana, so hun verde honum til Falls, so ad hendur Philistei falle yfer hann. Og hann sagde til Davids, a þessum Deige skallt þu verda minn Mægur ad annare minne Dottur.

22. Og Saul baud sijnum Þienorum ad tala heimuglega vid David, og seigia, Siaa þu, Kongurenn hefur mikla þocknan a þier, og aller hans Þienarar hafa þig kiærann, so verd nu Kongsins Mægur.

23. Og þesse Ord toludu Sauls Þienarar fyrer Davids Eyrum. Enn David svarade, Þyker ydur þad so lijtels verdt ad vera Kongsins Mægur? Eg em eirn Fatækur og lijtels hattar Madur.

24. Þienarar Sauls kunngiordu Saul aptur Ord Davids, og sogdu, Soddann Ord hefur David talad.

25. Enn Saul sagde, Seiged so til Davids, Kongurenn gyrnest ongva Morgungiafu, utann Hundrad Forhuder af þeim Philisteis, so ad golldenn verde hefnd Kongsins Ovinum. Þvi Saul hugsade ad fella so David fyrer Hondum Philisteanna.

26. Þesse Ord fluttu hans Þienarar til Davids. Og David lijkade þetta vel, ad verda Mægur Kongsins.

27. Og fyrer afvedenn Tijma bio David sig, og for med sijna Menn, og slo af Philisteis Tvo Hundrud Manns. Og David bar med sier þeirra Forhuder, og fullnægde Kongenum med Tolunne, so ad hann yrde Mægur Kongs. Þa gaf Saul honum Michol sijna Dottur til Eigennkvinnu.

28. Enn Saul sa, og merkte, ad DROTTinn var med David. Og Michol, Dotter Sauls, elskade David.

29. Þa ottadest Saul enn meir David, og fieck þa Fiandskap til hans alla sijna Daga.

30. Og þa Philistei Hofdingiar heriudu, þa var David forsialare enn aller Þienarar Sauls, nær sem þeir attu ut ad fara, so hans Nafn vard hatt prijsad.

# XIX. Capitule.

David flyr fra Saul (I) J Fyrsta Sinne; (II) i Odru Sinne; og (III) kemur so til Samuels.

I. Enn Saul mællte vid sinn Son Jonathan, og so alla sijna Þienara, og baud þeim ad drepa David. Enn Jonathan, Son Sauls, elskade David miog.

2. Og kunngiorde honum þetta, og sagde, Minn Fader Saul stundar epter ad drepa þig, þar fyrer giæt þijn a Morgun, og fel þig.

3. Enn eg skal fara ut og standa hia Fodur mijnum a Morkenne, þar þu ert, og skal eg tala vid minn Fodur um þig, og hvors eg verd afvijs, skal eg kunngiora þier.

4. Og Jonathan talade vid sinn Fodur Saul hid besta um David, og sagde til hans, Kongurenn giore ecke þann Glæp a sijnum Þienara David, þviad hann hefur ecke rt misgiort vid þig, helldur eru hans Verk þier miog nytsamleg,

5. Og hann lagde sitt Lijf j hættu, og sloo þann Philisteum, og DROTTinn giorde mikla Hialp ollu Israels Folke. Þetta saastu, og vardst gladur vid. Þvi villtu þa glæpast a saklausu Bloode, ad þu villt drepa David, an Saka?

6. Saul hlydde Raust Jonathan, og soor (seigiande) So sannarlega sem DROTTinn lifer, hann skal ecke deya.

7. Þa kallade Jonathan a David, og sagde honum oll þesse Ord, og leidde hann jnn fyrer Saul, og hann var fyrer honum sem fyrr.

8. Þar hoofst enn Ofridur, og David foor

vot ad beriast jmoot Philisteis, og veitte þeim miked slag, so ad þeir hrucku fyrer honum.

II. 9. Enn Jllur Ande af DRottni kom yfer Saul, og hann sat j sijnu Hwse, og hiellt a einu Spiote, enn David liek a Hliodfære med sinne Hende.

10. Og Saul ætlade ad nijsta David j gegnum, vid Veggenn, med Spiotenu. Enn hann halladest undann Saul, og Spioted stod j veggnum, enn David flwde, og komst undann þa somu Nott.

11. Pa sende Saul bod til Davids Hwss, ad þeir skylldu vakta hañ, og deyda ad Morgne. Þetta kunngiorde hans Eigennkvinna Michol David, og sagde, Ef þu fordar ecke þinne Saalu, a þessare Nottu, þa muntu deya a Morgun.

12. Pa liet Michol hann sijga vt um eitt Vindauga, so hann gieck burt, flyde, og komst undann.

13. Og Michol took eitt Mannlijkan, og lagde j Sængena, og liet eina Geitstøku under þess Hofud, og hulde þad med Klædum.

14. Pa sende Saul bod, og skipade ad sækia David. Enn hun sagde, Hann er siukur.

15. Enn sende Saul aptur, og skipade þeim ad skoda David, og sagde, Bered hann hingad til mijn j Sængenne, so hann sie drepinn.

16. Enn sem Sendemenn komu, Sioa, þa laa Mannlijkan j Sængenne, og Geitar Skinn under Høfdenu.

17. Þa sagde Saul til Michol, Þvi hefur þu sviked mig, og laated minn Ovin j burt komast? Michol svarade Saul, Hann sagde vid mig, Laat mig fara, ellegar skal eg drepa þig.

III. 18. David flyde nu, og komst undann, og foor til fundar vid Samuel j Rama, og sagde honum allt fra, hvad Saul hafde giort honum, Og hann gieck med Samuel, og þeir dvoldust j Najoth.

19. Og Saul fieck þad ad spyria, Sioa, David er j Najoth, j Rama.

20. Pa sende Saul Menn, ad þeir skylldu færa David til hans. Og þeir saau þria Spaamanna Flocka, sem spaadu, og Samuel var þeirra Tilsionare, Jafnsnart kom Guds Ande yfer Sendemenn Saul, so ad þeir spaadu med odrum.

21. Pa Saul spurde þad, sende hann adra Menn, þeir spaadu og so. Hann sende hina þridiu Sendemenn, og þeir spaadu eirnenn.

22. Pa foor hann og sialfur til Rama, Enn sem hann kom ad þeim stoora Brunne, sem stendur j Seku, spurde hann ad og sagde, Hvar eru þeir Samuel og David? Enn honum var sagt, Sioa, þeir eru til Najoth j Rama.

23. Og hann gieck þangad, til Najoth j Rama. Og Guds Ande kom og so yfer Saul, og hann gieck framm, og spaade, þar til hann kom allt til Najoth j Rama.

24. Og hann kastade og so af sier Klædum, og spaade fyrer Samuel, og fiell framm Nakenn allann þann Dag, og þa Nott med. Þadann kemst sa Ordskvidur, Hvort er Saul og a medal Spaamanna?

# XX. Capitule.

(I) David talar vid Jonathan, þar hann flyr burt fra Hollenne; (II) Jonathan talar aptur vid Saul Fodur sinn vegna Davids; (III) Jonathan og David kyssast grætande.

I. David flyde fra Najoth j Rama, kom og talade vid Jonathan, Hvad hef eg giort? Hvad hef eg misbroted? Hvort er mitt Rangslæte vid Fodur þinn? Ad hann sæker epter mijnu Lijfe.

2. Enn hann svarade honum, Ei mun so vera, þu skallt ei deya. Sioa, minn Fader giører þad alldrei smaatt nie stort, so ad hann seige mier þad ecke aadur, Þvi skyllde Fader minn dylia mig þessa? Þvi maa þetta ecke skie.

3. Pa foor David enn framar, og sagde, Þinn Fader veit vel, ad eg hefe funded Naad fyrer þijnu Auglite, og þvi hugsar hann so,

Jona-

Jonathan skal ecke vita þetta, so hann hrig-
gest ei vid þad. So sannarlega sem DRot-
tinn lifer, og so sannarlega sem þijn Sal
lifer, þa er þar ecke utann eitt footmaal mille
mijn og Dauda.

4. Jonathan sagde til Davids, Giora
mun eg allt þad vid þig sem þitt Hiarta
gyrnest.

5. David svarade honum, Sioa, a mor-
gun er Maanadar koma, enn eg er þa vanur
ad sitia til Bords med Konge, So leyf mier
nu ad felast a Akre, allt til Kvollds a enum
þridia Deige.

6. Enn spyrie þinn Fader ad mier, þa
svara þu so, David bad mig leyfis, ad hann
mætte fara sem snarast til Bethlehem Bor-
gar sinnar, þviad hans oll Ætt helldur þar
eitt aarlegt Offur.

7. Ef hann þa svarar, ad þad sie vel, þa
mun þijnum Þion fridt vera. Enn verde Kon-
gurenn reidur, þa maattu merkia, ad þar er
illt alycktad hia honum.

8. So gior nu Miskunarverk a Þion þij-
num, þvi þu hefur giort eirn Fielagskap vid
mig þinn Þion j Auglite DROTTins. Enn
finnest nockur Misgiorningur med mier, þa
drep þu mig, þvi hvar fyrer villt þu færa
mig til þijns Fodurs.

9. Jonathan svarar, Þad sie langt fraa
þier, ad ef eg kann merkia, ad minn Fader
hugsar þier nockud illt, ad eg skyllda ecke laata
þig vita þad.

10. David mællte, Hver skal kunngiora
mier þad, ef Fader þinn svarar þier þunglega?

11. Jonathan sagde til Davids, Kom, og
laatum ockur ganga vt a Akurenn, Og þeir
geingu baader vt a Akrenn,

12. Þa sagde Jonathan til Davids,
DROTTinn Gud Israels, Ef eg formerke
a mijnum Fodur, a Morgun, og þann þri-
dia Dag, ad David mune Fridt vera, og ef
eg sende þier ecke bod þar um, og ber þad til
þinna Eyrna,

13. Þa giore DROTTinn Jonathe þad
og þad. Enn hugse minn Fader nockud illt ad
giora þier, þa skal eg kunngiora þad fyrer
þijnum Eyrum, og sleppa þier, so þu ganger
j burt med Fride. Og sie DROTTinn med
þier, sem hann var med mijnum Fodur.

14. Og hallde eg ecke þetta, þa giore ein-
genn Guds Miskunseme vid mig, so leinge
sem eg life, og eige helldur þa eg er daudur.

15. Og þa DROTTinn hefur afmaad
sierhvoria Davids Ovine af Landenu, so
tak ecke þijna Miskun fra mijnu Hwse æfin-
lega.

16. So giorde Jonathan eitt Saattmaal
vid Davids Hws (og sagde) Krefie DRot-
tinn þess af Davids Ovina Hende.

17. Og Jonathan soor David enn fra-
mar, so elskade hann hann, þvi hann elska-
de hann sem sijna eigenn Saal.

18. Og Jonathan sagde til hans, A mor-
gun er Haatijd hins Nya Maanadar, þa mun
spurt verda ad þier, þvi þijn mun saknad
verda, þadann sem þu ert vanur ad sitia.

19. Kom ofann hingad sem skiotast a þri-
dia Deige, og far einhvorstadar, ad fela þig
a virkum Deige, og set þig hiaa þeim Steine
Asel.

20. So vil eg skiota þremur Orvum utann
hia Steinenum, eins sem eg villde skiota til
Hæfis,

21. Og sioa þu, þa skal eg senda minn
Svein, Far og sæk Orvarnar. Ef seige eg þa
til Sveinsins. Sioa þu, Orvarnar liggia hin-
gad betur a Bake þier, ber þær hingad, þa
kom þu, þvi þa er Fridt, og Haaskalaust, so
sannarlega sem DROTTinn lifer,

22. Enn ef eg seige til Sveinsins, Sioa
þu, Orvarnar liggia framm betur fra þier,
þa far þu j burt, þviad DROTTinn hefur
laated þig ganga.

23. Enn hvad vid hofum talad med ockur,
þa er DROTTinn a mille þijn og mijn
æfenlega.

II. 24. Og David falde sig a Akrenum, Og
nu sem Maanadar Haatijdenn kom sette Kon-
gurinn sig til Bords ad eta.

25. Og sem hann var setstur j sijnum stad, þar sem hann var vanur ꝏdur vid vegginn, þa stod Jonathan upp, enn Abner sette sig hid nærsta hiꝏ Saul, og þeir soknudu Davids wr sijnu Sæte.

26. Og Saul talade ecke til a þeim Deige, þvi hann hugsade, Honum hefur eitthvad adborest, ad hann er ecke hreinn.

27. Þann annann Dag Nymꝏnadarins, þa saknad var Davids wr hans stad, þa sagde Saul til sijns Sonar Jonathan, Fyrer þvi kiemur ecke Sonur Isai til Bords, Hvorke j Giær, nie so helldur j Dag?

28. Jonathan svarade Saul, Hann bad mig, ad hann mætte fara til Bethlehem,

29. Og sagde, Leyf mier ad fara, þviad mijner Frændur hafa eitt Offur j Stadnum, og minn Broder hefur sialfur boded mier. Hafe eg nu funded Nꝏd fyrer þijnu Auglite, þa vil eg þangad, ad siꝏ mijna Brædur, og fyrer þessa skulld er hann ecke komenn til Kongsins Bords.

30. Þa reiddest Saul ꝏkaflega Jonathan, og sagde til hans, Þu hinn Ohlyduge Skalkur, Eg veit vel, ad þu hefur wtvaled þennann son Isai, þier og þinne vanartugre Modur til skammar.

31. Þviad so leinge sem þesse son Isai lifer a Jordunne, þa verdur hvorke þu nie þitt Kongs Rijke stadfest. So send nu af stad, og lꝏttu hafa hann hingad til Mijn, þvi hann skal deya.

32. Jonathan svarade sijnum Fodur Saul, og sagde til hans, Þvi skal hann deya? Hvad hefur hann giort?

33. Þa skaut Saul Spiote epter honum, so hann skyte hann j giegnum. Þa merkte Jonathan, ad hans Fader hafde endelega einsett sier, ad hann villde drepa David,

34. Og hann gieck fra Bordenu med grimmum Hug, og ꝏt ei Braud, a ødrum Deige þeirrar Mꝏnadar Hꝏtijdar, þvi hann hriggdest vegna Davids, fyrer sokum þess, ad hans Fader hafde so fordæmt hann.

III. 35. Ad Morgne Dags gieck Jonathan wt a Akurenn, þangad sem þeir David høfdu mællt, og hans Smꝏsveirn med honum,

36. Og hann sagde til Sveinsins, hlaup og sæk þa Ør sem eg skyt af. Enn sem Sveirnenn rann af stad, skaut Jonathan eirnre Ør framm yfer hann.

37. Enn sem Sveirnenn kom þangad sem Jonathan hafde Pijlunne skoted, þa kallade Jonathan epter honum, og sagde, Pijlann liggur leingra framm fra þier.

38. Og enn kallade hann meir epter honum, Flyt þier snart, og statt ecke vid. Sveirn Jonathans tok saman ørvarnar, og bar þær til sijns Herra.

39. Og sveirnenn visse ecke til hvors þetta kom, enn þeir Jonathan og David vissu alleina þesse rꝏd,

40. Epter þad fieck Jonathan sijnum sveine sijn Vopn, og sagde til hans, Far þu, og ber þetta j stadinn.

41. Sem Sveirnenn var komenn þar jnn, þa stood David upp af þeim stad a moot Sudre, og fiell framm a sitt Andlit til Jardar, og badst fyrer þrem sinnum. Og þeir Jonathan mynntust hvor vid annann, og grietu bꝏder, þo David miklu meir.

42. Og Jonathan sagde til Davids, Far nu j Fride, Hvad sem vid bꝏder høfum svared til samans j Nafne DROTTins, og sagt, DROTTinn vere millum mijn og þijn, millum þijns Afkvæmis og mijns, þad vare æfinlega.

43. Og Jonathan tok sig upp, og kom j Borgena.

## XXI. Capitule.

(I) David kemur til Achimelechs Kennemanns, og (II) til Achis Konungs.

I David kom til Nobe, til Achimelechs Kiennemans. Og Achimelech hnickte vid, þa ed hann mætte David, og sagde til hans, Þvi kiemur þu so alleina, so ad ecke er eirn Madur med þier?

2. Enn

2. Enn David svarade Achimelech Preste, Kongurenn bifalade mier eitt erinde, og sagde til mijn, Lꜳt øngvann vita, Hvar fyrer eg hefe sendt þig, eda hvad eg hefe bifalad þier, þvi hef eg og so sendt mijna Menn hingad og þangad fra mier.

3. Enn hafer þu nockud þier j Hende, eitt Braud eda fimm, þa gief mier þau j mijna Hønd, eda hvad þu gietur funded.

4. Presturenn svarade David, og sagde, Eg hefe eckert almennelegt Braud under minne Hende, helldur þau sem Heiløg eru, hafe ad eins Sveinarner hallded sier fra Kvenna Samvistum.

5. David svarade Kiennemannenum, og sagde, Kvinnurnar voru Þria Daga geymdar fyrer oss, þa eg foor vt, og Sveinanna (a) Ker voru Heiløg. Enn sie þesse Vegur oheilagur, þa skal hann helgast j Dag fyrer Kerinn,

(a) (Ker) Sierhvør Lijkame heiter Kier edur Verkfære j Skriftenne, so sem og so j Postulanna Giørningum j 9. Cap. Þa seiger Christur um S. Paal, Hann er mitt utvaled Kier, edur Verkfære, af þvi ad GUD fraumm kvæmer þar med sitt Verk, svo sem eirn Handverks Madur med sijnum Verkfærum, so vill nu David hier sagt hafa, þa Personann er heiløg, þa er allt heilagt, hvad mann etur, dreckur, giører edur lætur o=giørt, so sem S. Paall til Tit. 1, 15. seiger, þeim Hreinu er allt Hreint.

6. * Þa gaf Kiennemadurenn hønum af þvi Heilaga, þvi þar var ecke annad Braud, utann þau Skodunar Braud, sem upphafenn voru fyrer DROTTinn, ad Menn skylldu leggia onnur ny Braud aptur, þa þau være j burt tekinn, a sama Deige.

* Matth. 12, 3. 4. Marc. 2, 25. 26. Luc. 6, 3. 4.

7. Enn þar var eirn Mann innelucktur þann Dag fyrer DROTTni, af Þienurum Sauls, hvør ed hiet Doeg, eirn Edomiter, hann var Mꜳttkastur af Hyrdorum Sauls.

8. Og David sagde til Achimelech, Hefur þu ecke under þinne Hende Spiot nie Sverd? Eg tok ei mitt Sverd, nie Vopn, med mier, þviad so bar brꜳdann ad um Kongs Erinde.

9. Kiennemadurenn svarade, Philisteans Goliaths Sverd, hvørn þu sloost j Eikedal, er hier, og er sveipad j einum Mottle, tilbaka vid Lijfkyrtelenn, vilier þu þad hafa, so tak þad, þviad hier er ecke annad enn þetta. David svarade, Eckert annad er jafnt þvi, fꜳ þu mier þad.

II. 10. Og David tok sig upp, og fordadist Saul, og kom til Achis, sem var Kongur j Gath,

11. Enn Achis Þienarar søgdu til hans, Þad er David, Kongur Landsins, af hvørium þær sungu j Dansenum, og søgdu, Saul vann Sigur a Þusund, enn David a Tiju Þusundum.

12. David hugfeste þesse Ord, og var hræddur miøg vid Achis Kong af Gath.

13. Hann umbreitte Asynd sinne fyrer þeim, og lietst vera galenn j þeirra Høndum, og rekur sig a Dyrnar j Portenu, og hans Froda rann vt j hans Skiegg.

14. Þa sagde Achis til sinna Þienara, Siꜳed, þier siꜳed, ad þesse Madur er Vitstole, þvi leiddud þier hann fyrer mig?

15. Eda hef eg ecke noga vitlausa, ad þier leiddud hann þo hingad, ad hann skyllde ærast hier fyrer mier? Skyllde hann koma j mitt Hvs?

## XXII. Capitule.

(I) David kemur til Adullam; (II) til Mizpe; (III) til þess Skoꜳar Hareth, hvar (IV) David fretter af Doegs Svikum gegn Prestunum i Nobe.

I. David giecK þadann, og flyde j Hellerinn Adullam. Enn sem hans Brædur, og allt hans Fodurs Hvs heyrde þad, komu þeir ofann þangad til hans.

2. Og alls slags Menn, sem j nockre Neyd, Skulldum, og Hiartasorgum voru, sofnudust til hans, og hann vard þeirra Høfdinge, so ad þar urdu hiꜳ hønum nær fiogur Hundrud Manns.

II. 3. Sijdann giecK David þadann til Mizpe, j Land Moabitarum, og sagde til Kongsins

j Moab, Leyf mijnum Fodur, og minne Mo-
dur, ad ganga hier vt og jnn, hioa ydur, þar
til ad eg veit hvad GUD vill giora vid mig.
4. Og hann liet þau hioa Moabita Konge,
og þau voru hioa honum, so leinge sem Da-
vid var j Kastalanum.
III. 5. Enn Prophetinn Gad sagde til Da-
vids, Vert ecke leingur j Kastalanum, helldur
far burt, og kom j Land Juda. So foor Da-
vid, og kom j þann Skoog sem heiter Hareth.
6. Pad spurde Saul, ad David, og þeir
Menn sem hann hafde hioa sier, voru j Ang-
lios komner. Nu sem Saul bio j Gibea,
under einum Lunde j Rama, hiellt hann a
Spioote j sinne Hende, og aller hans Piena-
rar stodu j kringum hann.
7. Pa sagde Saul til sinna Piona, sem j
kringum hann stoodu, Heyred Born Jemini,
Mun Son Isai giefa ydur øllum Akra og
Vijngarda, og giora ydur alla ad Høfdin-
gium yfer Pusund, og yfer Hundrad?
8. Ad þier hafed aller so sambunded ydur a
moote mier, og þar er eingenn sem þvilijkt
hefur opennberad mijnum Eyrum, first ad
minn Son hefur giort Samband vid Son J-
sai. Og þar er eingenn af ydur sem slijkt har-
me minna Vegna, og seige mier þad, þviad
minn Sonur hefur uppvaked minn Pienara j
moote mier, ad hann situr um mig, so sem
þad Angliost er.
IV. 9. Pa svarade Doeg Edomiter, hvor
ed stood hioa Sauls Pienorum, og sagde so,
Eg sa Son Isai, ad hann kom j Nobe til Achi-
melechs, Sonar Ahitobs,
10. Hann for til Frietta vid DROttinn
hans vegna, og gaf honum Vister, og fieck
honum Sverded þad Goliath Philisteus haf-
de ꝛatt.
11. Pa sende Kongurinn af Stad, og
liet sækia Achimelech Kiennemann, Son Ahi-
tobs, og allt hans Fodurs Hws, þa Kien-
nemenn, sem voru j Nobe. Og þeir komu aller
til Kongsins.
12. Og Saul sagde, Heyrdu Son Ahi-
tobs. Hann svarade, Hier er eg, Minn Herra.

13. Saul sagde til hans, Hvar fyrer bun-
dud þid Samtok a moote mier, þu og So-
nur Isai, so þu gafst honum Braud, og
fieckst honum Sverd, og raadgadest vid GUD
fyrer hann, ad uppvekia hann ad sitia um
svikræde vid mig, so sem þad auglioſt er?
14. Achimelech andsvarade Kongenum,
og sagde, Hvor er þvilijkur a medal allra þin-
na Pienara sem David, so dyggur, og Kong-
sins Magur, hlydenn þijnu Bode, og hei-
darlega halldenn j þijnu Hwse?
15. Mun eg þa first biriad hafa j Dag ad
raadgast um vid GUD hans vegna? Pad sie
langt fra mier, ætle ecke Kongurenn sijnum
Pienara slijkt j ollu mijnu Fodurs Hwse,
þviad þinn Pienare visse eckert af ollu þessu,
hvorke mikid nie lijted.
16. Kongurenn svarade Achimelech, þu
skallt sannarlega deya, þu og allt þitt Fodurs
Hws.
17. Og Kongurenn sagde til sinna Piena-
ra, sem hioa honum stoodu, Snued ydur, og
dreped Kiennemenn DROttins, þviad þeirra
Hendur eru og med David, og þeir vissu þa
hann flyde, enn kunngiordu þad ecke mier.
Enn Kongs Pienarar villdu ecke leggia sijnar
Hendur a DROTTins Kiennemenn ad dre-
pa þa.
18. Pa talade Kongurenn til Doeg, Snuſt
þu vid, og vinn a Presttunum, Doeg Edomite
snere sier vid, og vann a Kiennemonnonum,
og so doou a þeim Deige Fimm og aattatije
Menn, sem skrydder voru Lin-Lijfkyrtlum,
19. Hann sloo og Kiennemanna Borgena
Nobe med Sverds Eggium, bæde Menn og
Kvinnur, Born og Briostmylkinga, Uxa, og
Asna, og Saude.
20. Enn eirn komst undann af Sonum
Achimelechs, Sonar Ahitobs, hann hiet Ab-
Jathar, og flyde til Davids,
21. Og kunngiorde honum, ad Saul hafde
dreped DROTTins Kiennemenn,
22. Pad sagde David til AbJathar, San-
narlega visse eg þad a þeim Deige, þa Doeg
Edomite

Edomite var þar, ad hann munde seigia þad Saul. Eg er sekur allra þeirra Sealna þijns Fodurs Hwss.

23. Nu vert þu med mier, og oottast ecke, þviad hvor sem leitar epter mijnu Lijfe, sa skal og leita epter þijnu Lijfe, þu skallt holpenn verda medur mier.

# XXIII. Capitule.

Saul offsæker David i firsta Sinne, enn hlytur ad snua heimleides aptur vegna sinna Ovina, og fær ec kert ɑunned mote David.

Þau Tijdende voru søgd David, Sioa, Philistei strijda a Kegila, og ræna þeirra Kornhlodur.

2. Þa spurde David DROTTinn ad, og sagde, Skal eg fara þangad, og sloa þessa Philisteos? Og DROTTinn sagde til Davids, Far þangad, og muntu sloa Philisteos, so þu frelser (Borg) Kegila.

3. Enn þeir Menn sem voru med David søgdu til hans, Sioa, vier erum med Otta hier j Juda, og vilium fara j Kegila jmoot Herlide þeirra Philistea?

4. Þa spurde David DROTTinn j annann Tijma ad þessu, og DROTTinn svarade honum, og sagde, Rijs þu upp, og far ofann til Kegila, þvi Eg vil giefa Philisteos j þijnar Hendur.

5. So ferdadest David med sijnum Mønnum til Kegila, ried til Bardaga vid Philisteos, og rak burt þeirra Kvikfie, og veitte þeim miked Slag. So frelsade David þa j Kegila.

6. Þviad þa AbJathar, Son Achimelechs, flyde til Davids, til Kegila, þa bar hann Lijfkyrtelinn nidur med sier.

7. Þa friette Saul, ad David var komenn til Kegila, þa sagde hann, GUD hefur nu giefed hann j mijnar Hendur, ad hann er innelucktur, þar hann er komenn nu j eirn Stad, bivaradann med Portum og Slagbrondum.

8. Og Saul liet samannkalla allt sitt Folk til Strijds, ofann til Kegila, ad sitia um David og hans Menn.

9. Enn sem David fær þann Kvitt, ad Saul hugsade honum jllt, sagde hann til AbJathar Prests, Fær mier hingad Lijfkyrtelinn.

10. Og David sagde, DRottinn, þu Jsraels GUD, þinn Þienare hefur feinged þann Kvitt, ad Saul er nu þess Sinnis, ad hann vill koma hier ofann til Kegila, þennann Stad ad eydeleggia minna vegna.

11. Munu þa Borgarmenn j Kegila frammselia mig j hans Hendur? Og mun Saul koma ofann hingad, so sem þinn Þienare hefur heyrt? DROTTINN GUD Jsraels, undervijsa nu þetta þijnum Þion. Og DROTTinn svarade, Hann mun koma ofann.

12. David sagde, Munu þa Borgarmenn Kegila frammselia mig, og mijna Menn, j Hendur Saul? DROTTinn svarade, Jaa.

13. Þa tok David sig upp, og hans Menn, sem voru nær Sex Hundrud, og fooru wt af Kegila, og geingu þangad sem þeir kunnu. Enn sem Saul fieck ad vita, ad David var flwenn af Kegila, þa yfer gaf hann sijna Reisu.

14. Enn David dvaldest j Eydemørku, j øruggu Vijge, og var uppa Fiallenu, j Eydemørku Siph. Saul sokte epter honum alla sijna Daga, enn GUD gaf hann ecke j hans Hendur.

15. Og David merkte, ad Saul var wtdreigenn, ad leita epter hans Lijfe. Enn David hiellt sig j Eydemørku Siph, a Skogenum.

16. Epter þetta tok sig upp Jonathan, Son Sauls, og foor til fundar vid David, j Skogenn, og stirkte hans Hendur j GUde,

17. Og sagde til hans, Ottast þu ecke, Hond Sauls, Fodurs mijns, skal ecke finna þig, og þu munt verda Kongur yfer Jsrael.

So vil eg verda nærstur hiaa þier. Og minn Fader veit allt þetta vel.

18. Og þeir bundu baader eirn Saattmaala i Auglite DROTTins, Og David vard epter j Skogenum, Enn Jonathan hvarf aptur til sijns Heimelis.

19. Enn þeir Siphitar fooru upp til Sauls j Gibea, og sögdu, Er ecke David hiaa oss j Fylsnum, j Vijge þvi sem er a Skoge, a þeirre Hæd Hachila, hvør ad liggur til Hægre Handar Eydemerkur?

20. Þvi fare nu Kongurenn ofann, epter allre sinne villd, þa vilium vier koma honum i Kongsins Hendur.

21. Þa sagde Saul, Blessader sieud þier af DROTTni, ad þier hofdud medaumkan med mier.

22. Fared nu aptur af stad, og verded enn nu vijsare, ad þier bæde vited og siaed j hvorium stad hans Fætur voru, og hvør hann hefur sied þar, þviad mier er sagt, ad hann sie slægur.

23. Rannsaked og niosned um øll Plats, þar hann felst, og komed til mijn aptur, nær þier hafed oruggva vissu þar um, þa vil eg fara med ydur, sie hann j Landenu, þa vil eg leita epter honum a medal allra Þusunda j Juda.

24. Þa toku þeir sig upp, og geingu til Siph undann Saul. Enn David og hans Mennn voru j Eydemørku Maon, a Sliettlendonum, sem liggia til Hægre Handar hiaa Eydemørkenne.

25. Þa nu Saul foor med sijnum Mønnum ad leita, þa fieck David þad ad vita. Og hann foor ofann ad Biargenu, og var j Eydemørku Maon. Þa Saul friette þad, foor hann þegar epter David, j Eydemørku Maon.

26. Og Saul, med sijnum Mønnum, gieck ødrumeigenn Fiallsins, David og hans Menn voru ødrumeigenn Fiallsins, Enn sem David flyter sier ad komast undann Saul, þa tok Saul med sijnum Mønnum ad kringia ollumeigenn um David, og hans Menn, ad hann villde grijpa þa.

27. J þvi bile kom þar Sendemadur til Sauls, og sagde, Flyt þier, og kom snart, þvi Philistei eru fallner jnn j Landed.

28. Þa hvarf Saul aptur, og liet af ad sækia epter David, enn foor j moot Philisteis, þar af var sa stadur kalladur (a) Selamahelkoth,

(a) (SelaMahelkoth) heiter Skilnadar Klettur.

XXIV. Cap. 1. Og David foor upp þadann, og dvaldest j Slotenu EnGedi.

## XXIV. Capitule.

Saul offsæker David i annad Sinn, en verdur ad Jata, ad David giørde honum Gott fyrer Jllt.

2. Nu sem Saul kom aptur, fra þeim Philisteis, var honum þegar sagt, Siaa, David er nu j Eydemørku EnGedi.

3. Og Saul tok þriar Þusunder ungra Manna af ollum Jsrael, og foor af stad ad leita Davids, og hans Manna, um Kletta Steingeitanna.

4. Enn sem hann kom ad nockrum Fiaarbyrgium a Veigenum, þa vard fyrer honum eirn Heller, og Saul gieck þar jnn ad (a) hylia sijnar Fætur. Enn David og hans Menn saatu j þeim sama Heller jnnarlega.

(a) (Hylia Fætur) So tierleg er Heiløg Ritning, ad hun kallar þad ad hylia Fætur, ad ganga til naud synia Erinda.

5. Þa sögdu Menn Davids til hans, Siaadu, nu er sa Dagur kominn, af hvørium DROTTinn hefur sagt þier, Siaa, eg vil giefa þinn Ovin j þijnar Hendur, so þu maatt nu giora honum hvad þig lyster. David stood upp, og sneid so hliodlega eitt Laf af Skickiu Sauls.

6. Enn sem hann hafde skored Lafed af Sauls Skickiu, þa (b) komst hann vid j sijnu Hiarta,

(b) (Komst vid) Hann ottadest ad sijner Menn mundu falla yfer hann, og deyda hann: 2 Sam. 1, 14.

7. Og sagde til sinna Manna, DRottinn loate þad vera langt fra mier, ad eg skule þad giora ad leggia mijna Hond a minn Herra, þann Smurda DROttins, þviad hann er Smurdur DROTTins,

8. Og David mykte Huge sinna Manna med Ordum, og liet þa ecke reisa sig upp j moot Saul. Nu sem Saul gieck vt af Hellernum, og foor a sinn Veg,

9. Pa stood og David upp, og gieck vt af Hellernum, og kallade epter Saul, og sagde, Minn Herra Kongur. Saul leit aptur. Og David hneigde sitt Andlit til Jardar, til bad,

10. Og sagde til Sauls, Pvi hlyder þu þeirra Manna Ordum, sem so seigia? David leitar epter þinne Olucku,

11. Sioa, þijns sioalfs Augu sioa þad a þessum Deige, ad DROTTinn hafde giefed þig a þessum Deige j mijnar Hendur j Hellernum. Og þad var sagt, ad eg skyllde sloa þig j Hel, Enn eg hlijfda þier, þvi eg sagde, Eige vil eg leggia mijna Hond a minn Herra, þvi hann er sa Smurde DROTTins.

12. Minn Fader, Sioa, hier er eitt Laf af þinne Skickiu j minne hende (til merkis) ad eg villda ecke sloa þig j hel, þa eg skar þetta Laf af þinne Skickiu. Giœttu nu ad, og sioadu, ad þar er eckert Illt j minne Hende, ei helldur nockur Misgiorningur. Eg hefe og ecke syndgast j moote þier, og þu ellter mijna Soal, ad þu taker hana j burt.

13. DROTTinn mun vera Domare millum mijn og þijn, og hefna mijn a þier, Enn mijnar Hendur skal eg ei leggia a þig.

14. Sem Menn plaga ad seigia j gomlum Ordskvid, Af Omilldum kiemur Odygd, Enn mijn Hond skal ecke koma yfer þig.

15. Epter hvorium leitar þu, Kongur Jsrael? Hvorn ellter þu? Einn Daudann Hund? Einasta eina Floo?

16. DROTTinn vere Domare, og dœme millum mijn og þijn, og sioae til, og vtrietta mijna Sok, og frelse mig af þinne Hende.

17. Enn sem David hafde vt talad þesse Ord vid Saul, þa svarade Saul, David, minn son, Er þad ecke þijn Rodd? Og Saul upphoof sijna Raust og griet,

18. Og sagde til Davids, Pu ert Riettloatare enn eg. Pad gooda hefur þu audsynt mier, enn eg hefe synt þier hid vonda.

19. Og nu hefur þu audsynt mier j Dag, hvorsu vel þu hefur giort vid mig, ad Drottinn hafde giefed mig j þijnar Hendur, enn þu drapst mig þo ecke.

20. Hvornenn mun nockur finna sinn Ovin, og loata hann fara goodann Veg fra sier? DROTTinn umbune þier goodu fyrer þennann Dag, þad þu hefur giort mier.

21. Sioa nu, Eg veit, ad þu munt verda Kongur, og Jsraels Kongs Rijke stendur j þinne Hende.

22. So sver mier nu vid DROTTinn, ad þu vilier ecke upp rœta mitt Sœde epter mig, og ei afmoa mit Nafn af mijns Fodurs Hwse.

23. Og David soor Saul. Sijdann foor Saul heim, Enn David og hans Menn foru aptur j sitt Vijge.

## XXV. Capitule.

(I) Samuel andast, (II) Nabals Rijkdomur, og (III) Heimska. (IV) Um Abigael.

I. Og Samuel andadest, og allur Jsrael safnadest samann, og þeir grietu yfer honum, og jordudu hann j sijnu Hwse j Rama. Og David took sig upp, og foor ofann til Eydemerkur sem kallast Paran,

II. 2. Og þar var eirn Madur j Maon, og hafde sijna bygd j Carmel, þesse same Madur var miog meztugur, og hann hafde þriar Pusunder Sauda, og Pusund Geitsioar. Og þad skiede so, ad hann klippte sijna Saude j Carmel.

3. Og hann hiet Nabal, Enn hans Kvinna hiet Abigail, hun var skinsom Kvinna, og miog frijd j Andlite. Enn hennar Madur var hard-

hardrꝍadur og illur j ſijnum athꝍfunm, hann var eirn af Caleb.

III. 4. Nu ſem David heyrde j Eydemorkenne, ad Nabal klippte Saude ſijna,

5. Þa wtſende hann tiju af ſijnum Smꝍaſveinum, og ſagde til þeirra, Fared upp til Carmel, og ſem þier komed til Nabal, þa heilſed honum vinſamlega minna vegna,

6. Og ſeiged, Gud giefe Luckn! Fridur ſie med þier og þijnu Hwſe, og med ꝍllu þvi ſem þier til heyrer.

7. Eg hefe heyrt, ad þu hefur þa ſem klippa Saude þijna. Nu þijner Hiardargeymarar, ſem þu hefur, þeir hafa vered hiꝍ oſs, Vier hꝍfum ecke ſyrerlited þa, og þa braſt alldrei neitt a ſijna tꝍlu, þa ſtund þeir voru j Carmel.

8. Spyr þijna Unga þienara ad, ſo ſkulu þeir ſeigia þier þad. Þar fyrer lꝍat nu Sveinana ſinna Nꝍad j þijnu Auglite, þviad vier hꝍfum hitt a eirn goodann (a) Dag, Gief þijnum Þienurum, og þijnum Syne David, hvad ſem þijn Hond finnur.

(a) (Goodann) Jſrael hiellt ætijd Hꝍtijd og Heimboð, þa þeir klipptu ſitt Fie.

9. Sem Davids Smꝍaſveinar komu nu þangad, og hofdu frammbored ꝍll þeſſe Ord Davids vegna fyrer Nabal, þa þꝍgnudu þeir.

10. Enn Nabal ſvarade Davids Þienurum, og ſagde, Hver er þeſſe David? Og Hver er þeſſe ſon Jſai? Marger gioraſt nu þeir Þienarar ſem flya frꝍa ſijnum Herrum.

11. Skal eg taka mitt Braud, Vatn, og Kiot, ſem eg hefe ſlꝍatrad og tilreidt Hiardarklipporum mijnum, og giefa þeim Mꝍnnum ſem eg þecke ecke hvadann þeir eru komner?

12. Davids Smꝍaſveinar ſneru aptur ſinn veg, Og ſem þeir komu aptur til hans, þa tioꝍdu þeir honum allt þetta,

13. Þa ſagde David til ſijnna Manna, Binde hver ydar ſitt Sverd uppa ſig, og hver eirn batt ſitt Sverd uppa ſig, og David gyrdeſt og ſijnu Sverde, og honum filgdu fiogur Hundrud Manns, enn tvo Hundrud liet hann verda epter hiꝍ þeirra Fanſe.

IV. 14. Enn eirn af Sveinunum undervijſade og ſagde Abigail Nabals Kvinnu, Siꝍ, David ſende Bod af Eydemorkenne, og liet Blijda Heilſan bera vorum Hwsbonda, Enn hann ſnepſade þeim.

15. Enn þeir hafa vered oſs miꝍg þarfer Menn, hafa ecke forſmꝍad oſs, ſo oſs vantade alldrei a vora tꝍlu, medan vier geingum med þeim, þa ſtund ſem vier vorum a Morkenne.

16. Helldur hafa þeir vered vor Mwrveggur Dag og Nott, alla þa Stund ſem vier geymdum (vora) Saude hiꝍ þeim.

17. Þar fyrer hugſa þu nu, og ſiꝍ, hvad þu villt giora, Þviad þar er ſannarlega Olucka bwenn vorum Hwsbonda og ꝍllu hans Hyſke. Enn hann er ſo Jllſkufullur Madur, ad eingenn þorer ad ſeigia honum nockud.

18. Þa bregdur Abigail vid, og tekur Tvo Hundrud Brauds, Tvær Floſkur Vijns, og fimm Saude upp ſodna, og fimm Mæla Miols, og hundrad ſticke Ruſin, og Tvo Hundrud ſticke Fijkna, og klyfiade Aſna.

19. Og hun ſagde til ſinna Sveina, Fared undann mier, Siꝍ, eg vil koma epter ydur. Enn af þeſſu ſagde hun ecke par ſijnum Manne Nabal.

20. Og ſem hun reid a einum Aſna, og reid framm under eitt Fiall, Siꝍ, þa kom David, og hans Menn þar nidur, jmoote henne, ſo hun mætte þeim,

21. Enn David hafde ꝍadur ſagt, Nu vel, eg hefe forgiefins geymt allt þad ſem þeſſe (Madur) ꝍtte j Eydemorkenne, ſo ad þar fargadeſt ecke neitt af ꝍllu þvi ſem hann ꝍtte, nu hefur hann umbunad mier jllu fyrer gott,

22. Giore Gud Davids Ovinum þetta, og enn meira, ef eg læt nockurn Lijfe hallda, jnn til þeſs lios Dagur er, af þeim ſem j

Vegg af sier Vatn lætur, af øllum þeim sem honum tilheyra.

23. Nu sem Abigail leit David, stie hun jafnsnart af sijnum Asna, og fiell framm a sitt Andlit fyrer David, og tilbad a Jordunne.

24. Og fiell til hans Foota, og sagde, O Minn Herra, kienn þu mier þennann Misgiorning, og leyf þinne Þionustukvinnu ad tala fyrer þijnum Eyrum, og virdst þu ad heyra Ord þinnar Amboattar.

25. Minn Herra setie ecke sitt Hiarta a moote þeim Illskufulla Manne Nabal, þvi hann er foavijs, so sem hans Nafn hliodar, og Foavitska er med honum. Enn eg þijn Amboatt sa ecke mijns Herra Þienara, þa sem þu wtsender.

26. Og nu, Minn Herra, so sannarlega sem DROTTinn lifer, og so sannarlega sem þijn Önd lifer, þa hefur DROTTinn hamlad þier, ad þu skyllder ecke wthella Bloode, Hann hefur og frelsad þijna Hond. Verde nu so sem Nabal þijner Oviner, og þeir sem vilia mijnum Herra illt.

27. Enn hier er su Blessan, sem þijn Þionustu Kvinna færde mijnum Herra hingad, gief þetta Þienorunum, sem fara med mijnum Herra.

28. Enn fyrergief þinne Amboatt þessa Yfertrodslu, þviad DROTTinn mun byggia mijnum Herra eitt stadfast Hwˢ. Þvi ad þu heyer Bardaga DROTTins, og lætur eckert illt finnast med þier, alla þijna Daga.

29. Og þegar nockur Madur vill uppsetia sig, og offækia þig, og sitia um þitt Lijf, þa mun mijns Herra Saal vera inne bundenn i Bindene Lifande (Manna) hioa DROTTne þijnum Gude. Enn Saaler þinna Ovina munu umsleygiast med Slongvu.

30. Nu þegar DROTTinn giorer þier, Minn Herra, allt þad gooda sem hann hefur sagt þier, og boded ad þu skuler vera eirn Hertoge yfer Israel.

31. Þa skal ecke mijns Herra Hiarta þetta vera til falls eda fororgunar, ad þu hafer ecke Bloode wthellt oan Sakar, og hioalpad þier sioalfum, þa skal DROTTinn giora vel mijnum Herra, og þa muntu minnast þinnar Amboattar.

32. David sagde til Abigail, Lofadur sie DROTTinn GUd Israels, sa ed sende þig i Dag til fundar vid mig,

33. Blessud sie þijn Ræda, og blessud siert þu, ad þu hefur hamlad mier a þessum Deige ad wthella Bloode, og hefna mijn med minne eigenn Hende.

34. Sannlega, so vijst sem DRottinn GUd Israels lifer, sa sem hepte mig, ad eg giorde þier ecke vondt, hefder þu ecke komed so snart til fundar vid mig, þa hefde Nabal ei hallded epter til Morguns einum þeim sem i Vegg af sier Vatn lætur.

35. Sijdann medtook David, af hennar hende, þad sem hun hafde fært honum, og sagde til hennar, Far nu med Fride upp til þijns Hwss, Sioa, eg hlydda þinne Raust, og virdte þijna Personu.

36. Þegar Abigail kom til Nabals, Sioa, þa hafde hann reidt til eirnrar Veitslu, i sijnu Hwse, so sem Kongs Veitsla være, og hans Hiarta var sem kaatast hioa (a) sioalfum sier, þvi hann var miog druckenn. Enn hun sagde honum eckert, hvorke mikid nie lijted, allt til lioss Dags.

(a) (Sioalfum sier) hann hafde ongvum innboded, og ecke giegnt Foatækum.

37. Enn um Morgunenn, sem af honum liette Vijnenu, þa sagde hans Kvinna honum þetta allt, þa doo hans Hiarta i hans Bwk, so hann vard sem Steinn.

38. Og Tiju Dogum þar epter sloo DROTTinn hann, so hann andadest.

39. Enn sem David heyrde ad Nabal var daudur, sagde hann, Lofadur sie DROTTinn, sa ed hefnde a Nabal minnar Svivirdingar, og hepte sinn Þienara fra þvi Vonda: Og DROTTinn liet Nabals vondsku

 koma

koma honum j Koll. Og David sende hangad, og liet tala vid Abigail, ad hann villde taka hana til Eigennkvinnu.

40. Enn sem Davids Pienarar komu til Abigail, j Carmel, þa toludu þeir vid hana, og sogdu, David sende oss til þijn, ad hann vill soa þijn sier til Eigennkvinnu.

41. Hun stod upp, fiell framm til Jardar a sitt Andlit, og tilbad, og mællte, Sioa, hier er þijn Ambaatt, ad hun þione Pienorum mijns Herra, og þvoe Fætur þeirra.

42. Og Abigail bioo sig skiott, og reid a einum Asna, og Fimm hennar Pionustumeyar med henne, og foor epter Sendemonnum Davids, og giordest Hwsfreya hans.

43. David fieck og Ahinoam af Jesreel, og þær baadar voru hans Eigennkvinnur.

44. Enn Saul gipte Phalti, Syne Lais, af Gallim, sijna Dottur Michol, Davids Kvinnu.

## XXVI. Capitule.

Saul ofsæker David i Þridia Sinne, en hlytur umsijder ad blessa David.

Þeir af Siph komu til Sauls j Gibea, og sogdu, Mun David ecke leynast a Hachila Hædum, gagnvart Eydemorku?

2. Pa tok Saul sig upp, og foor nidur j Eydemorku Siph, og Priar Pusunder Ungra Manna af Israel med honum, ad leita epter David j Eydemorku Siph.

3. Og hann sette Herbwoder a Hachila Hæd, sem ad liggur giegnt Eydemorkenne hioa Veigenum. Enn David var j Eydemorkenne. Og er hann soa, ad Saul kom epter honum j Eydemorkena,

4. Utsende hann Niosnarmenn, hann friette þa, ad Saul var vissilega komenn.

5. Og David took sig upp, og kom ad þeim Stad sem Saul hiellt sijnar Herbwoder, og soa Stadenn sem Saul laa, og hans Hershofdinge, Abner, Son Ner, þvi Saul laa j Vagnborg, og Strijds-Folked j kringum hann,

6. Pa svarade David, og sagde til Abimelech Hethiter, og til Abisai, Sonar ZeruJa, Brodur Joab, Hvor vill fara med mier ofann ad Herbwodum Sauls? Abisai svarade, Eg vil fara med þier ofann þangad.

7. So kom David og Abisai til Folksins um Nottena. Og Sioa, Saul laa og svaf j Vagnborgenne, og hans Spiot stod j Jordu vid hans Hofud, enn Abner, og Folked laa j kringum hann.

8. Pa sagde Abisai til Davids, Nu hefur GUD a þessum Deige giefed þinn Ovin j þijna Hond, þvi vil eg nu leggia j gegnum hann Spiotenu einu sinne nidur j Jord, so ad hann skal ecke þurfa meira.

9. David sagde til Abisai, Dr p þu hann ecke, þvi hvor vill leggia Hendur a þann Smurda DROTTins, og vera ohegndur?

10. Og enn mællte David, So sannarlega sem DROTTinn lifer, ef sialfur DROttinn slær hann ecke, ellegar hans Tijme kiemur ad hann skal deya, eda hann dræge j Strijd, og fellur þar,

11. Pa forde DROTTinn mier þvi, ad eg legge mijna Hond a þann Smurda DROTTins. So tak nu Spiotid þad sem stendur ad hofde honum, og Vatnkiered, og forum burt.

12. So took David Spioted og Vatnkiered, þad sem stood ad Hofde Saul, og gieck j burt, og þar var eingenn sem þetta sa, edur yrde var vid, nie vaknade, helldur svasu þeir aller, þviad fastur Svefn af DROttni var yfer þa alla fallenn.

13. Og sem David var nu komenn yfer um, a hina Sijdu, gieck hann langt burt, uppa Gnyppu Fiallsins, so ad þar var langt bil a millum þeirra,

14. Og kallade til Folksins, og til Abner, Sonar Ner, og sagde, Heyrer þu ecke Abner? Abner svarade og sagde, Hvor ert þu, ad þu hroopar so j moot Kongenum?

15. David svarade Abner, Ert þu ecke Madur? Og hvor er þinn Jafninge j Israel? Pvi hefur þu þa ecke geymt þijns Herra

Kongs?

Kongs? Hvi þar gieck jnn eirn af Folkenu ad fordiarfa þinn Herra og Kong.

16. Nu hefur þu viist ei vel giort. So sannarlega sem DROTTinn lifer, þier erud Daudans Born, ad þier hafed ecke vardveitt ydarn Herra, þann Smurda DROttins, Sioa þu nu, hier er Kongsins Spioot, og þad Vatnkier sem var hioa hans Hofde.

17. Þa þeckte Saul Davids Rodd, og sagde, David, Minn Son, er þad ecke þijn Rodd? David sagde, þad er mijn Rodd, Minn Herra Kongur.

18. Og hann talade enn framar, Fyrer hvoria Skulld Offsæker minn Herra so sinn Þienara? Hvad hef eg giort, og hvad er vondt j minne Hende?

19. So heyre nu minn Herra Kongúr Ord siins Þienara, Ef DROTTinn hvetur þig jmoote mier, þa lat upptendra eitt Matoffur, Enn ef þad giora Manna Born, þa sieu þau bolvud fyrer DROTTni, ad þeir vilia vtreka mig a þessum Deige, ad eg maa ecke bwa j Erfd DROTTins, og þeir seigia, Far burt, og þiona þu odrum Gudum.

20. So falle nu ei mitt Blood a Iord fyrer Auglite DROTTins. Þviad Israels Kongur er vtdreigenn, ad leita epter eirnre Floo, so sem Menn ellta Riupu a Fiollum.

21. Þa svarade Saul, Eg hefe misgiort, kom aptur, Minn Son David, hiedann j fra vil eg ecke illt giora þier, af þvi ad nu j Dag var mitt Lijf dyrdlegt j þijnum Augum, Sioa, eg hefe giort favijslega, og miog oforsialega.

22. David svarade og sagde, Sioaed hier er Kongsins Spiot, fare einhvor af Sveinonum yfer hingad ad sækia þad.

23. Enn DROTTinn mun bitala sierhvorium epter sinne Riettvijse, og sinne Tru. Þviad DROTTinn gaf þig j Dag j mijnar Hendur, enn eg villde ecke leggia mijna Hond a þann Smurda DROttins.

24. Og so sem þijn Saal var mikels verd j Dag fyrer mijnum Augum, so sie og mijn Saal mikils j Auglite DROttins, og frelse hann mig af ollum Motgange.

25. Saul sagde til Davids, Blessadur siertu minn Son David, þu munt þad giora, og fullkomna þad. Epter þetta gieck David siina leid, enn Saul snere aptur j sinn Stad.

## XXVII. Capitule.

David og hans Folk byr i Ziklag.

Og David hugsade j siinu Hiarta, Eg fell einhvørn Dag j Hendur Sauls, Mier er eckert betra, enn eg flye undann j Philisteanna Land, so ad Saul mætte aflaata ad leita mijn framar um oll Israels Landamerke, so mun eg fordast hans Hendur.

2. Og hann tok sig upp, og foor yfer um, med þeim sex Hundrudum Manna, sem voru hioa honum, til Achis, sonar Maoch, Kongsins j Gath.

3. So var David j Gath hioa Achis, og hans Menn, hvor med siinu Hyske, David og so, med tveimur siinum Kvinnum, Ahinoam af Jesreel, og Abigail, Kvinnu Nabals, af Carmel,

4. Og er Saul frietter þad, ad David hafde flyed j Gath, þa liette hann ad leita epter honum framar.

5. Og David sagde til Achis, Hafe eg funded Naad fyrer þijnu Auglite, þa lat giefa mier Rwm j einhvorium stadanna j Landenu, ad eg meige bwa þar, þvi skyllde Þion þinn bwa hioa þier, j þijnum Konunglega stad?

6. Þa gaf Achis honum Ziklag, a þeim sama Deige. Og þar fyrer er Ziklag Juda Konga Stadur, allt til þessa Dags.

7. Enn sa tijme sem David bio j Lande þeirra Philistinorum, var eitt Aar og fiorer Maanader.

8. David foor upp med siina Menn, og fiell jnn j Land þeirra Þioda sem kolludust Gessuritar, og Girsitar, og Amalekitar, þviad þessar Þioder hofdu bwed j þessum Londum j Fyrndenne, þar Menn koma til Sur, allt ad Egyptalande.

9. Og sem David sloo Landed, liet hann hvorke lifa Karlmenn nie Kvinnur, Enn tok Saude, Uxa, Asna, Ulfallda, og Klæde, og snere so aptur, og kom til Achis.

10. Enn sem Achis þa mællte, Hafed þier hvorge ahlaup giort j Dag? David svarade, Sudur a mots vid Juda, og sudur a moote Jerahmeeliter, og sudur a moot Keniter.

11. Og David liet hvorke Karl nie Kvinnu lifande koma til Gath, þvi hann hugsade, Skie mä, ad þeir tale og þvætte um oss. So giorde David, og þad var hans sidvane alla þa stund sem hann bioo j Lande Philistinorum.

12. Og þvi trwde Achis David, og hugsade, Hann hefur giört sig andstyggelegann fyrer sijnu Folke Jsrael, þvi skal hann vera minn Þionustumadur æfinlega.

## XXVIII. Capitule.

Saul, j sinne Miklu Sorg og Hriggd, leitar Raada til Spakonunnar j Endor.

Þad skiede a þeim tijma, ad Philistei drogu samann sinn Her, ad heria a moote Jsrael, Og Achis talade vid David, Þu skallt vita, ad eg vil, ad þu og þijner Menn fare Herfor med mier.

2. David svarade Achis, Nu vel, þu skallt reyna hvad þinn Þienare skal giora. Achis svarade til Davids, Eg vil ad þu siert Hofudvordur minn alla mijna Daga.

3. (a) Samuel var daudur, og allur Jsraels Lydur hafde græted hann, og jardad hann j sinne Borg Rama. Saul hafde og vor Lande reked Spásagnarmenn, og Fiolkingis Menn.

(a) (Samuel) Þess gietur Ritningenn þar fyrer, ad vara sierhvorn þar vid, so ad hann skilie riett þessa epterfarande Sion, hverfing um Samuel, og vite þad, ad Samuel var Daudur, og slijkt hafe Ohreinn Ande, under Nafne og Personu Samuelis, talad og giört vid Saul, og Galldra Konuna.

4. Enn sem Philistearner hofdu safnast til samans, og komu og settu Herbuder sijnar j Sunem, þa samansafnade Saul ollum Jsrael, og sette Herbuder sijnar j Gilboa.

5. Enn er Saul sa Her Philistinorum, oottadest hann, og hans Hiarta vard miog skielft.

6. Og hann gieck til umrꝍda vid DROttinn, Enn DROttinn svarade honum ongvo, hvorke j Draume, nie fyrer (b) Lios, nie helldur fyrer Spámenn.

(b) (Lioos) Þad sem var a Briostskylldenum Kiennemannsins.

7. Þa sagde Saul til sinna Þienara, Leited upp fyrer mig þa Kvinnu sem hefur Spáfarar Anda, so eg meige fara til hennar, og adspyria hana. Hans Þienarar sogdu til hans, Siá, þar er ein Kvinna j Endor, hun hefur einn Spáfarar Anda.

8. Og Saul tok Klædaskipte, og jfærdest odrum, og gieck af stad, og tveir adrer med honum, og kom um Nott til Kvinnunnar, og sagde, Eg bid þig, spá þu mier fyrer Spáfarar Anda, og vek mier upp þann sem eg seige þier.

9. Kvinnann svarade honum, Siá, þu veitst vel, hvad Saul hefur giort, hvornenn hann hefur af Landenu upp rætt Spásagnar Menn, og Fiolkingismenn, þvi villtu þa leida mijna Sal j Snoru, so eg hreppe Dauda?

10. Saul soor henne vid DROTTinn, og mællte, So sannarlega sem DROTTinn lifer, þig skal eckert Jllt skie hier fyrer.

11. Þa svarade Kvinnann, Hvorium skal eg þa koma upp fyrer þig? Hann svarade, Vek upp Samuel fyrer mig.

12. Þa Kvinnann sá nu Samuel, kallade hun hárre Roddu, og sagde til Sauls, Þvi hefur þu sviked mig? þu ert Saul.

13. Kongurenn sagde til hennar, Eige skalltu oottast, Hvad sier þu? Kvinnann sagde til Sauls, Eg sie (c) Gude upp stijga vor Jordunne.

(c) (Guder) þad er Domarar.

14. Hann sagde, Hvornenn er hann j hátt? Hun ansade, Einn gamall Madur kie-

kiemur þar upp, og er klæddur einum Silke-kyrtle. (d) Þa merkte Saul, ad þad var Samuel, og hneigde sig a siina Asionu til Jardar, og badst fyrer.

(d) (Silkekyrtell) þad er Kiennemanns Klæded.

15. Enn Samuel sagde til Saul, Þvi hefur þu giort mier oncader, ad þu lietst uppvekia mig hier upp? Saul svarade, Eg er staddur j stoorre Angist. Philistei heria a mig, og Gud er vikenn fra mier, og vill ongva vissu giora mier, hvorke fyrer Spaamenn nie Drauma. Þar fyrer liet eg kalla þig, ad þu syner mier hvad eg skal giora,

16. Samuel svarade, Þvi spyr þu mig, first ad DROTTinn er vikenn fra þier, og ordenn þinn Ovin?

17. DROTTinn mun giora þier sem hann hefur sagt fyrer mig, og mun slijta Rijked af þinne Hende, og giefa David þijnum Naunga þad.

18. Sokum þess, ad þu varst ohlydenn Roddu DROTTins, og fullkomnader ecke Grimmd hans Reide moot Amalek. Og þvi hefur nu DROTTinn giort þier þetta.

19. Þar ad auk mun DROTTinn giefa Israel med þier j Hendur Philistinorum, A Morgun muntu, og þijner Syner, vera med mier, Og so mun DROTTinn giefa Israels Her j Philistea Hendur.

20. Þa fiell Saul til Jardar, so langur sem hann var, og vard hardla miog hræddur, fyrer Samuels Ordum, so ad hann vard Maattlaus, þvi hann hafde ecke Matar neytt allann þann Dag, og alla þa Nott.

21. Og Kvinnann gieck jnn til Sauls, og saa, ad hann var miog hræddur, og hun sagde til hans, Siaa þu, þijn Ambaatt hlydde þinne Roddu, og eg lagde mitt Lijf j hættu, og hlydde þijnum Ordum, sem þu sagder mier.

22. So hlyd þu nu og eirnenn Raust Ambaattar þinnar, Eg vil setia fyrer þig Munnbita Brauds, ad þu meiger eta og styrkiast, so ad þu meiger fara þinn Veg.

23. Hann neitade og sagde, Eg vil ecke eta, þa neyddu hans Þienarar, og Kvinnann, hann til, so hann hlydde þeirra Raustum. Og hann stood upp af Jordunne, og sette sig a Sængena.

24. Kvinnann aatte eirn alenn Kaalf j siinu Hwse, hun foor sem snarast, og liet slaatra honum. Og hun took Miol, hnodade, og bakade osyrt (Braud).

25. Og bar framm fyrer Saul og hans Þienara. Og sem þeir hofdu eted, stoodu þeir upp, og geingu um þa Nott.

## XXIX. Capitule.

Maadaneyte Achis Konnungs vilia ecke ad David skule fara i Hernad med þeim moote Saul.

Og Philistei samansöfnudu ollum siinum Her j Aphek, og Israels Lydur sette Herbwder siinar j Ain, j Jesreel.

2. Og Hofdingiar Philistinorum geingu framm, Hundrudum samann, og Þusundum samann. Enn David, og hans Menn geingu bak epter med Achis.

3. Þa sogdu Hofdingiar Philistinorum, Hvad skulu þesser Hebrei? Achis svarade til þeirra, Er þad ecke David, Þienare Sauls, Israels Kongs, hvor ad nu hefur verid hiaa mier Aar og Dag, med hvørium eg hefe eckert funded, siidann þann tijd hann fiell fra, og hingad til?

4. Enn Philistea Hofdingiar urdu honum reider, og sogdu til hans, Laat þu þann Mann snua aptur, og sie hann kirr j þeim stad sem þu hefur skipad honum, og laat hann ecke fara nidur med oss til Bardaga, ad ei snwest hann þa j moote oss, j Orustunne. Þvi hvar med kann hann betur ad giora til þocknunar siinum Herra, enn med Hofdum þessara Manna?

5. Er hann ecke sa David, um hvorn ad kveded var j Dansenum, Saul fellde Þusund, enn David tiju Þusunder?

6. Þa kallade Achis David fyrer sia, og sagde til hans, So sannarlega sem DRottinn lifer, eg helld þig eirn heidarlegann Mann, og þinn jnngangur og wtgangur

med mier j Hernum lijkar mier, og ongva Hreckvijse hefe eg funded med þier, fra þvi first þu komst til mijn, og allt til þessa, Enn ei þocknast þu Hofdingiunum.

7. Þar fyrer snu aptur, og far burt j Fride, so ad þu eige stygger Augu Hofdingia Philistinorum.

8. Þa sagde David til Achis, Hvad hef eg adhafst, eda hvad hefur þu funded med þijnum Þienara, fra þeim tijma eg kom til þijn, og jnn til þessa, ad eg skyllde ecke meiga fara, og beriast j moote mijns Herra Kongsins Ovinum?

9. Achis svarade, og sagde til Davids, Eg veit þad vel, þviad vel þocknast þu fyrer mijnu Auglite, so sem Guds Eingell. Enn þeir Hofdingiar Philisteanna sogdu, Laat hann eige fara upp med oss j þennan Bardaga.

10. So tak þig upp a Morgun aarla, og þienarar þijns Herra, sem komu med þier, og sem þeir eru buoner a Morgun, þa ad lyser, þa fared af stad.

11. So stod David, og hans Menn, aarla upp, og ferduduft um Morgunenn af stad, og komu aptur j Land Philistinorum. Enn Philistei ferduduft upp til Jesreel.

## XXX. Capitule.

(I) David sigrar Amalekitana; og (II) nær miklu Herfaange, sem er (III) skipt med Strijds Folkenu, og lijka (IV) er sendt af þvi til Davids Vina.

I. Nu sem David kom a Þridia Deige med sijna Menn til Ziklag, þa hofdu þeir Amalekitar aahlaup giort til Sudurs, og til Ziklag, og hofdu sleiged Ziklag, og uppbrennt hana med Ellde,

2. Þær Kvinnur sem þar voru toku þeir ad Herfaange med sier, bæde smærre og stærre. Enn ongvann Mann hofdu þeir jhel sleiged, helldur burt reked, og voru þa farner sinn Veg.

3. Enn sem David kom ad Stadnum med sijna Sveit, og saa, ad hann var uppbrenndur med Ellde, og ad þeirra Eigenkvinnur, Syner, og Dætur voru Herteknar,

4. Þa upphoof David, og þad Folk sem med honum var, þeirra Raust, og grietu so leinge, ad þeir gaatu ecke leingur graatid.

5. Þviad Tvær Kvinnur Davids voru og Herteknar, sem var Ahinoam af Jesreel, og Abigail, Nabals Kvinna, af Carmel.

6. Og David var miog hræggur, þviad Folked villde gryta hann. Þviad Saaler alls Folksins voru med beiskum Huga, hvor vegna sinna Sona og Dætra. Enn David styrktest j DRottne sijnum Gude,

7. Og sagde til AbJathar Kiennemanns, Sonar Achimelechs, Fær mier hingad Lijfkyrtelinn. Og sem AbJathar hafde fært Lijfkyrtelinn til Davids.

8. Þa spurde David DRottinn, og sagde, Skal eg fara epter þessum Strijds Monnum, og mun eg naa þeim? Hann sagde, Far epter þeim, þu munt og naa þeim, og giora Frelsan.

9. Sijdann foor David af Stad med Sex Hundrud Menn, sem med honum voru. Enn sem þeir komu ad þeim Læk Besor, þa stolldrudu þar nockrer epter.

10. Enn David, med þeim Fiorum Hundrudum Manns, veittu eptersoor, enn Tvo Hundrud Manns, sem epter stolldrudu, voru ofþreytter ad ganga yfer Lækenn Besor.

11. Og þeir fundu eirn Egyptskann Mann a Mørkenne, þann leiddu þeir til Davids, og gaafu honum Braud ad eta, og Vatn ad drecka,

12. So og gaafu þeir honum eina Kloo af Fijkium, og Tvær Klær med Rusin. Enn sem hann hafde eted, kom hans Ande til hans aptur, þvi hann hafde ecke eted j Þria Daga, og Þriar Nætur, og ecke a Vatne bergt.

13. Þa sagde David til hans, Hvors ert þu, og hvadann ert þu? Hann svarade, Eg er eirn Egyptskur Sveirn, og Þienare eins Amalekita, enn minn Herra liet mig epter, þviad eg syktest nu fyrer þremur Dogum.

14. Vier fiellum hier jnn, Sunnann ad

Crethi, og j moot Juda, og Sunnann ad Caleb, og uppbrenndum Ziklag med Ellde.

15. David sagde til hans, Villt þu filgia mier ofann til þessa Strijds-Folks? Hann svarade, Sver þu mier þa vid GUD, ad þu villt hvorke drepa mig, og eige helldur frammselia mig j Hendur mijns Herra, þa vil eg filgia þier nidur, til þessa Strijds-Folks.

16. Og hann filgde þeim nidur, og Sioa, þeir dreifdust um alla Jordena, ꜳtu og drucku, og hielldu Hꜳtijd, yfer øllu þvi mikla Herfꜳnge, sem þeir høfdu teked af Philisteum, og Juda Lande.

17. Og David sloo þa fra Morgne, og jnn til Kvollds, a moote ødrum Deige, so ad einngenn komst undann af þeim, utann Fiogur Hundrud smꜳ Dreingia, sem ridu Ulfølldum og flydu.

II. 18. So frelsade David aptur allt þad sem Amalekitar høfdu rænt, og sijnar Tvær Kvinnur.

19. Og þar vantade ecke neitt, hvorke miked nie lijted, hvorke Son nie Dotter, og ecke neitt Herfꜳng, edur af øllu þvi sem þeir høfdu teked, David færde þad alltsamann aptur.

20. Lijka vel tok David Saude og Naut, og þeir raku þad undann sier, og þeir søgdu, Þetta er Herfꜳng Davids.

III. 21. Nu sem David kom til þeirra Tvo Hundrud Manna, sem høfdu orded mædder ad filgia David, og urdu epter hiꜳ Lækunum Besor, geingu þeir ut a moote David, og a mote þvi Folke sem var med honum, David gieck til Folksins, og heilsade þvi vinsamlega.

22. Þa svørudu þeir sem Iller voru og Lausingiar, a medal þeirra Manna sem fared høfdu med David, og søgdu. Sokum þess, ad þeir fooru ecke med oss, þa skal þeim ecket giefast af þvi Herfꜳnge sem vier høfum frelsad, utann hvør take sijna Kvinnu og Børn, og gange so burt hiedann.

23. Þa svarade David, Eige skulud þier so giora, Mijner Brædur, vid þad sem DROttinn hefur giefed oss, og hefur verndad oss, og gaf þessa Strijdsmenn j vorar Hendur, þa sem hingad komu jmoote oss.

24. Hvor vill hlyda ydur j þessu? Lijka sem þeirra Partur er sem nidurfooru til Strijdsins med oss, so skal og þeirra Partur vera, sem epter voru hiꜳ þvi sem vier ꜳttum, og skal ad jafnade skiptast.

25. Þad er fra þeim Tijma, og þar epter, ordinn eirn Sidvane og Riettur j Israel, allt til þessa Dags.

IV. 26. Enn sem David kom j Ziklag, sende hann af Herfꜳngenu þeim Ølldungum j Juda, og sijnum Vinum, og sagde, Sioa, þar hafed þier Blessan af Herfꜳnge Ovina DROTTins.

27. Sem ad er, þeim j BethEl, þeim j Ramoth mot Sudre, þeim j Jathir,

28. Þeim j Aroer, þeim j Siphamoth, þeim j Esthemoa,

29. Þeim j Rachal, þeim j Jerahmeeliter Stødum, þeim j Keniternis Stødum,

30. Þeim j Harma, þeim j Bor Asan, þeim j Atach,

31. Þeim j Hebron, og j alla Stade, þar sem David hafde vered med sijnum Mønnum.

## XXXI. Capitule.

(I) Sijdarsta Herfør Sauls; (II) Hans Afdrif; (III) Forsmꜳn vid hann Ørendann; (IV) Hvar hann var jardadur.

I. Philistei hielldu Bardaga vid Israel, og Israels Menn flydu fyrer Philisteum, fiellu, og voru slegner a Fiøllum Gilboa.

2. Og Philistei soktu sem ꜳkafast ad Saul og hans Sonum, og sloou Jonathan, og Abinadab, og Malchisua, Syne Sauls.

3. Herdtest þa Bardagenn uppa Saul, og Bogmennerner skutu fastlega a hann, med Bogum, so ad stoor Sꜳr bꜳrust a hann af Skyttunum.

II. 4. Þa sagde Saul til sijns Skialldsveins,

Bregd

Bregd þijnu Sverde, og legg mig j giegnum
þar med, so ad þesser Oumſkornu kome ecke
ad drepa mig, og giøre Spott ad mier.
Enn hans Skialldſveirn villde ecke, þvi hann
oottadeſt miog. Þa tok Saul Sverded, og
liet fallaſt þar a.
5. Enn ſem hans Skialldſveirn ſaa, ad
Saul var daudur, fiell hann og ſo a ſitt
Sverd, og doo med honum.
6. So liet Saul Lijf ſitt, og hans Þrijr
Syner, og ſo hans Skialldſveirn, og ſo lijka
aller hans Menn a þeim ſama Deige.
III. 7. Enn ſem Jſraels Menn, ſem voru hi-
numeigenn Dalſins, og hinumeigenn Jorda-
nar, ſaau Floottann Jſraels Manna, og ad
Saul og hans Syner voru falliner, yfergaafu
þeir Borgernar, og flwdu og ſo, enn Philiſtei
komu og biugguj þeim.
8. A odrum Deige komu Philiſtei ad klæd-
fletta þa ſlegnu, og þeir fundu Saul, og hans
Þria Syne, liggiande a Fiallenu Gilboa.
9. Og þeir hiuggu Høfuded af Saul, og
tooku hans Herklæde af honum, og ſendu
þau um Land Philiſtinorum, og lietu lyſa
þeſſu j þeirra Afguda Hwſum, og ſo fyrer
Folkenu.
10. Hans Harneſkiu ſettu þeir upp j Hofe
Aſtharoths, enn hans Lijkama feſtu þeir a
Mwrveggenn j Bethſan.
IV. 11. Þa þeir j Jabes j Gilead heyrdu
þad, hvad Philiſtei høfdu giort vid Saul.
12. Tooku þeir ſig upp ſem voru vel vij-
ger, og geingu alla þa Noott, og tooku
Saul og hans Sona Lijkame af Mwrnum j
Bethſan, og færdu þa til Jabes, og brenn-
du Reykelſe yfer þeim þar.
13. Og þeir tooku þeirra Bein, og
jordudu þau under Trienu j
Jabes, og faſtudu j
Sio Daga.

Ender þeirrar Firſtu Bookar Samuelis.

# Annnur Book Samuelis.

## I. Capitule.

David harmar Liflaat Sauls og Jonathans.

Þa Saul var daudur, og David var aptur komenn fra ſlage þeirra Ama-
lekita, og hafde vered tvo Daga j
Ziklag.
2. Sioa, þa kom þar, a þridia Deige, eirn
Madur af Her Sauls, med rifnum Klæ-
dum, og Molldu yfer ſijnu Hofde. Og ſem
hann kom fyrer David, fiell hann til Jardar,
og tilbad.
3. David ſagde til hans, Hvadann komſt
þu? Hann ſvarade, Eg komſt undann af
Jſraels Her.
4. David ſagde til hans, Seig mier,
hvornenn geingur þad til? Hann ſvarade,
Folked flwde vr Bardaga, og fiell Fiollde
Folks, þar til er Saul daudur, og hans ſon
Jonathan.
5. David ſagde til þeſſa unga Manns, ſem
honum bar Tijdendenn, Hvornenn veitſtu
þad, ad Saul, og hans ſon Jonathan, eru
dauder?
6. Sa unge Madur, ſem honum bar Tij-
dendenn, ſvarade, Eg kom oforvarandis uppa
fialled Gilboa, og ſioa, Saul ſtuddeſt vid ſitt
ſpiot, enn Vagnarner og Riddara-lided var
komed ſo nær epter honum.
7. Og hann ſneriſt vid, og ſaa mig, og
kallade a mig, og eg ſvarade, Hier er eg.
8. Og hann ſagde til mijn, Hvor ert þu?
Eg ſvarade honum, Eg er eirn Amalekite,

9. Og hann sagde til miin, Far hingad til mijn og slœ mig j hel, þviad þreyngsl spenna mig ollumeigenn, enn allt Lijf mitt er enn j mier.

10. Pa gieck eg ad hønum, og sloo hann j hel, þvi eg visse vel, ad hann mœtte ecke lifa epter hans fall. Og eg took Koronuna af hans Hofde, og Hringenn af hans Arme, og hafde eg þetta hingad til þijn, Minn Herra.

11. Pa hreif David sijn Klæde, og sleit þau, og aller þeir Menn sem voru hica hønum.

12. Og sorgudu og grietu, og føstudu til Aptans, yfer Saul, og hans son Jonathan, og yfer DROTTins Folke, og yfer Jsraels Hwse, ad þeir hofdu falled fyrer Sverde.

13. Og David sagde til þess unga Manns, sem hønum underviisade þetta, Hvadann ert þu? Hann svarade, Eg er eins Utlends Manns sonur, sem er Amalekite.

14. David sagde til hans, Pvi varstu so diarfur ad þu þorder ad leggia þijnar Hendur a þann Smurda DROTTins, og lijfl œta hann?

15. Og David sagde til eins af sijnum Sveinum, Kom hingad og slœ hann. Og hann sloo hann j hel.

16. Pa sagde David til hans, Pitt Blood vere yfer þijnu Hofde, þvi þinn Munnur talade j giegn þier sialfum, og sagde, Eg hefe j Hel slegeđ þann Smurda DROTTins.

17. Og David klagade þennann Harmagrœat, yfer Saul, og hans syne Jonathan.

18. Og baud ad kienna Bornum Juda þennann (a) Boga, Sia, þad stendur skrifad j Book þeirra Froomu.

(a) (Boge) So kallast þesse Vijsa, so sem og hiea oss eru Vijsum og Kvædum Nøfn giefenn.

19. Peir enu Agiætustu j Jsrael eru slegner a þijnum Hædum, Hvornenn eru Kapparner fallner?

20. Leated þad ecke spyriast j Gath, og kunngiored þad ecke a Strætunum j Askion, so ad Dætur Philistinorum gledie sig ecke, og ad Dætur þeirra Oumskornu, hafe ecke Fognud (þar af).

21. Pier Gilboa Fioll, kome hvorke Dogg nie Regn yfer ydur, og ei sieu þar Akrar, af hvorium Upphafningar Offur kome, þviad þar voru Skollder Kappanna af slegner, Skiolldur Sauls, so sem ad hefde hann ecke vered smurdur med Vidsmiore.

22. Jonathans Boge skaut alldrei a miss, og Sverd Sauls kom alldrei aptur œn Bloods þeirra j Hel slegnu, og œn Feite Kappanna.

23 Saul og Jonathan voru œstudleger og elskuleger j Lijfenu, þeir skildu og ecke j Daudanum, þeir vdru liettfærare enn Erner, og sterkare enn Leon.

24. Pier Jsraels Dætur, syrged Saul, sem klædde ydur prydelega med Roosa Lit, og prydde ydur med Gyllene Klenodium a ydar Klædum.

25. Med hvorium hætte eru Kapparner so fallner j Bardaga? Jonathan er sleigenn a þijnum Hædum.

26. Syrge eg þig, Minn Broder Jonathan, Eg hefe haft stoora Glede og Unadarsemd af þier, þinn Kiærleike var mier stærre enn Kvenna Kiærleike.

27. Med hvorium hætte eru Kapparner fallner, Og þeir Hraustu Hermenn fyrerkomner?

## II. Capitule.

(I) David er smurdur Kongur yfer Juda. (II) Jsboseth er giørdur ad Kunge yfer Jsrael; (III) Hershøfdingiar Hverutveggiu fara ut til ad beriast.

I. Enn sem þetta var nu skied, spurde David DROTTinn ad, og sagde, Skal eg fara upp til einhvorrar Borgar j Juda? Og DROTTinn sagde til hans, Far upp þangad. David sagde, Hvort þa? Hann svarade, Til Hebron,

2. So foor David þangad, med sijnum tveimur Kvinnum, Ahinoam af Jesreel, og med Abigail, Nabals Kvinnu, af Carmel,

3. Par med hafde og David upp med sier þa Menn sem voru hiea hønum, hvorn

med sijnu Hyske, og þeir settust j Hebron
Borger.

4. Og Menn af Juda komu þangad, og
smurdu David þar til Kongs, yfer Hws
Juda. Nu sem David spurde, ad þeir af
Jabes j Gilead hefdu jardad Saul,

5. Pa sende hann þeim bod, og liet seigia
þeim, Blessader sieud þier af DROTTni,
ad þier giordud soddann Miskunar Verk a
Saul ydrum Herra, ad þier jordudud hann.

6. So veite ydur nu DRottinn Miskun
og Trw. Og eg vil vera ydur til gooda, fyrer
þad þier giordud þetta.

7. Stirkest nu ydar Hendur, og vered
þier sialfer hughrauster, þvi þo ydar Herra
Saul sie daudur, þa hefur Hwsed Juda
smurt mig til Kongs yfer sig.

II. 8. Enn Abner, son Ner, sem var Hers-
hofdinge Saul, hann tok Jsboseth, son
Sauls, og færde hann til Mahanaim,

9. Og tok hann til Kongs yfer Gilead,
Assuri, Jesreel, Ephraim, BenJamin, og
yfer allann Jsrael.

10. Og Jsboseth, son Saul, var Fioru-
tijge Aara gamall, þa hann took Kongdom
yfer Jsrael, og rijkte j Tvo Aar. Enn Juda
Hws hiellt med David,

11. Og sa tijme sem David var Kongur
j Hebron, yfer Hws Juda, var Sio Aar
og Sex Moanuder.

III. 12. Og Abner, son Ner, foor wt med
Sveina Jsboseth, Sonar Sauls, af Her-
num j Gibeon.

13. Og Joab, son ZeruJa, foor wt med
Davids Pienorum, og þeir mættust hioa Gi-
beon Fiskevatne, og þeir settu sig sijnumeigenn
Fiske Vatnsins hvorer.

14. Og Abner sagde til Joab, Lated
Sveinana standa upp, og leika fyrer oss.
Joab sagde, Pad moa vel.

15. Pa stoodu þeir upp og geingu framm,
Tolf ad tolu af BenJamin, af Parte Jsbo-
seth, sonar Sauls, og Tolf af Davids Pie-
norum.

16. Og hvor greip Hende j annars Hofud,
og lagde sijnu Sverde j hans Sijdu, og þeir
fellu so bader, þar af kallast sa stadur (a)
Helkath Hazurim, sem er j Gibeon.

(a) (Helkath Hazurim) heiter Kappa Akur, edur þeirra Fostu.

17. Og þar hoofst, a þeim sama Deige,
hin snarpasta Orusta, Enn Abner og Jsraels
Menn urdu slegner fyrer Davids Pienorum.

18. Par voru þrijr af ZeruJa sonum,
Joab, Abisai, og Asahel. Enn Asahel var so
skiotur a Fæte sem eitt Hreindyr a Morku.

19. Og hann rann epter Abner, og viek
hvorke til hægre nie vinstre Handar fra
Abner.

20. Pa snere Abner sier vid, og sagde,
Ert þu Asahel? Hann sagde, Joa,

21. Abner sagde til hans, Vijk þu þier
wt af, annad hvort til Hægre edur vinstre
Handar, og hondla eirn af þeim ungum
Monnum, og tak hans Herklæde fra ho-
num. Enn Asahel villde ecke vijkia fra ho-
num.

22. Pa sagde Abner enn framar til Asa-
hel, Vijk froa mier, þvi villt þu ad eg skule
sloa þig til Jardar, og hvornenn skyllde eg
siidann þora ad upplypta mijnu Andlite fyrer
þijnum Broder Joab?

23. Enn hann villde ecke vijkia fra ho-
num. Pa lagde Abner hann a bak aptur med
einu Spiote j Kvidenn, so ad Oddurenn
gieck wt til Baka, og hann fiell þar, og liet
Lijfed fyrer honum. Og hvor sem kom ad
þeim stad, þar Asahel var daudur, sa nam
(þar) stadar.

24. Enn Joab og Abisai soktu epter Ab-
ner, allt til Solar falls. Og sem þeir komu a
Hæd Amma, sem liggur hioa Giah, a veige-
num, sem liggur til Gibeon Aydnar,

25. Pa sofnudust samann Born Ben
Jamins epter Abner, og urdu Flockkorn, og
stoodu efst a Hæd nockurs Haugs,

26. Pa kallade Abner til Joabs, og sag-
de, Skal þa Sverded oan afloats uppeta?

Veitst þu ecke, ad hier epter moa koma meire Eymd? Hvorsu leinge villt þu tefia ad seigia til Folksins, ad þeir loate af ad offækia þeirra Brædur?

27. Joab svarade, So sannarlega sem Gud lifer, hefder þu ecke (b) talad so, þa hefde Folked loated af snemma j Dag ad ellta sijna Brædur.

(b) (Talad) þad er, hefder þu ecke sagt so, Loated Sveinana leika.

28. Þa blies Joab j Basunur, og stødvadest þegar allur Lydur, og ellte ecke meir Israel, og bardest ecke helldur leingur.

29. Enn Abner og hans Menn geingu alla þa Nott yfer þad Slettlende, og geingu yfer Jordan, og ferdudust j giegnum allt Bitron, og komu j Herbuderuar.

30. Joab snere sier fra Abner, og samansafnade ollu Folkenu. Og þar vantade Nijtian Menn af Davids Þienorum, og Asahel.

31. Enn Davids Þienarar høfdu slegid af BenJamin og Mønnum Abner, so ad þriu Hundrud og sextije Manns voru Dauder.

32. Asahel toku þeir upp, og jordudu hann j sijns Fødurs Grøf j Bethlehem. Enn Joab og hans Menn geingu alla þa Nott, so ad þeir komu j Døgun til Hebron.

## III. Capitule.

(I) Abner verdur Reidur vid Isboseth; (II) Giører Samband vid David; (III) Er drepinn af Joab, (IV) Er grafinn og Harmadur.

I. Og þar var langt Strijd jmillum Sauls Hwss og Davids Hwss. Enn David foor, og var vagsande, enn Hws Sauls foor, og var hnignande.

2. Og David oatte Børn j Hebron, hans Frumgietenn Son var Amnon af Ahinoam af Jesreel.

3. Annar var Chiliab, af Abigail, Kvinnu Nabals af Carmel. Enn Þridie var Absalon, Son Maacha, Dottur Kongs Thalmai af Gesur.

4. Sa Fiorde Adonia, Son Hagiths. Sa Fimmte, SaphatJa, Son Abital.

5. Sa Siøtte, Jethream, af Egla Davids Kvinnu. Þesser eru David fædder j Hebron.

6. Sem þesse Ofridur var a mille Sauls Hwss, og Davids Hwss, þa stirkte Abner Hws Sauls.

7. Saul hafde oatt eina Frillu, hun hiet Rizpa, Dotter Aia. Og Isboseth sagde til Abner, Þvi sefur þu med mijns Fødurs Frillu?

8. Þessum Ordum Isboseths reiddest Abner miøg, og svarade, Er eg þa eitt Hunds Høfud, ad eg giøre Miskunar Verk a Hwse Sauls þijns Fødurs, og a hans Brædrum, og Naaungum, jmot Juda? Og eg sellde þig ecke j Davids Hendur. Og þu avijtar mig j Dag, sokum eirnrar Kvinnu?

9. GUD giøre Abner þad og þad, ef eg giøre ecke þad sem DRottinn soor David.

10. Ad Kongs Rijked skal takast fra Hwse Sauls, enn Davids Hoasæte skal upphefiast yfer Israel og Juda, fra Dan, og allt til BerSeba.

11. Þa gat hann ecke svarad hønum einu Orde framar, so hræddur vard hann fyrer hønum.

II. 12. Og Abner sende Bod til Davids undann sier, og liet seigia hønum, Hvorium heyrer Landed til? Og hann sagde, Gior eitt Soattmoal vid mig, Sioa, mijn Hønd skal vera med þier, so ad eg vil snwa øllum Israel til þijn.

13. Hann sagde, Nu vel, eg vil binda eitt Soattmoal vid þig. Enn eins beidunst eg af þier, ad þu sioaer ecke mitt Andlit, utann þu færer mier Michol, Dottur Sauls, oadur, nær þu kiemur ad sioa mitt Andlit.

14. David sende og eirnenn Bod til Isboseth, Sonar Sauls, og liet seigia hønum, Loat mig foa mijna Kvinnu Michol, hvoria eg fastnade mier med Hundrad Yferhwdum Philistinorum.

15. Isboseth sende af Stad, og liet taka

 hana

hana fra sijnum Manne Paltiel, Syne Lais.
16. Og hennar Madur gieck med henne, og griet bak epter henne, allt til Bahurim. Pa sagde Abner til hans, Snu þier, og hverf aptur, og hann hvarf aptur.
17. Og Abner talade vid þa Ellstu af Jsrael, og sagde, Þier hafed fyrer laungu stundad epter David, ad hann skyllde verda Kongur yfer ydur.
18. Pa giored þad nu, þviad DROttinn hefur sagt til Davids, Eg vil frelsa Jsrael mitt Folk, fyrer Hond Davids mijns Pienara, af Hende Philistinorum, og af allra þeirra Ovina Hondum.
19. Slijkt hid sama talade Abner og fyrer Eyrum BenJamin. Og hann gieck og so burt, til ad tala fyrer Davids Eyrum, j Hebron, allt þad sem Jsrael, og allt BenJamins Hws villde vera lꝏta.
20. Enn sem Abner kom nu til Davids j Hebron, og Tuttugu Menn med honum, þa giorde David þeim eitt Giestabod.
21. Og Abner sagde til Davids, Eg mun taka mig upp, og fara ad samansafna ollum Jsrael, til mijns Herra Kongs, ad þeir semie Sꝏttmꝏl vid þig, uppa þad, ad þu siert Kongur, so sem Sꝏl þijn gyrnest. Sijdann liet David Abner fra sier, ad hann foor burt med Fride.
III. 22. Og siꝏ, ad Davids Pienarar, og Joab, komu fra Strijds-Folkenu, og fluttu med sier miked Herfꝏng. Enn Abner var þa ecke hiꝏ David j Hebron, helldur hafde hann lꝏted hann fra sier, so hann hafde skiled vid Kongenn med Fride.
23. Enn sem Joab kom nu, og allur Herinn med honum, þa var honum undervijsad, ad Abner, Son Ner, hafde komed til Kongsins, og hann hefde lꝏted hann fara fra sier, so ad hann var a Stad farenn med Fride.
24. Pa gieck Joab jnn fyrer Konginn, og sagde, Hvad hefur þu giort? Siꝏ, Abner er komenn til þijn, hvar fyrer lietstu hann komast fra þier, so hann er j burtu gengenn?
25. Eda þecker þu ecke Abner, Son Ners? þviad til þess er hann komenn, ad hann vilie svijkia þig, og vill vita þinn Utgang og Inngang, og rarnsaka allt hvad þu giorer.
26. Enn sem Joab gieck wt fra David, þa sende hann Bod epter Abner, ad þeir skylldu sækia hann aptur fra BorHasira, enn af þessu visse ecke David.
27. Enn sem Abner kom nu aptur til Hebron, þa leidde Joab hann midt j Borgarhlided, ad hann villde nockud heimuglegt tala vid hann, og stack hann þar j Kvidenn, og hann deyde, vegna Asahels Bloods, sem var Broder Joabs.
28. Sem David fieck þad ad vita eptir a, þa sagde hann, Eg er saklaus, og mitt Kongs-Rijke, fyrer DRottne eylijflega, af Bloode Abners, Sonar Ners.
29. Enn kome þad yfer Hofud Joabs, og yfer allt hans Fodurs Hws, so ad alldrei linne j Joabs Hwse, ad þar sie ecke nockur Sꝏr og Lijkþrꝏar, og vid Staf gangande, og fyrer Sverde fallande, og Brauds þurfande.
30. So slo Joab og hans Broder Abisai Abner jhel, þar fyrer, ad hann hafde ꝏdur sleiged Asahel, þeirra Brodur, til Dauda, j þeim Bardaga hiꝏ Gibeon.
IV. 31. Enn David sagde til Joab, og til allra þeirra Manna sem med honum voru, Rijfed ydar Klædi j sundur, og gyrdest Seckium, og syrged Abner. Og Kongurenn gieck epter Lijkborunum.
32. Enn sem þeir jordudu Abner j Hebron, þa upphoof Kongurenn sijna Raust, og griet vid Grof Abner, og allt Folked griet eirnenn.
33. Og Kongurenn klagade epter Abner, og sagde, Eige do Abner so sem eirn Dꝏre deyr.
34. Pijnar Hendur eru ecke bundnar, þijner Fætur eru ecke Fiotrum Læster, þu fiellst so sem eirn Madur fellur fyrer Vondum Skalkum. Og allt Folked griet hann þa enn meir.

35. Og

35. Og sem allt Folked kom jnn ad eta med David, og pad var enn um Middags Skeid, pa soor David, og sagde, GUd lœte mig skie pad og pad, ef eg smacka Brand, eda nockud annad, fyrr enn Sool er undergeingenn.

36. Og allt Folked merkte þetta, og þeim þocknadest vel allt pad Gott sem Kongurenn giørde, fyrer alls Folksins Augum.

37. Og allt Folked, og allur Jsrael merkte a þeim Deige, ad pad var ei skied med Kongsins Vilia, ad Abner, Sonur Ners, var sleigenn jhel.

38. Og Kongurenn sagde til sinna Þienara, Vited þier ecke, ad j Dag er fallenn eirn Hofdinge og hinn meste Madur j Jsrael?

39. Enn eg er ennu veikur og Smurdur Kongur, enn þeir Menn, ZeruJa Born, eru mier harder j Horn ad taka, DRottinn endurgiallde þeim sem jllt giora, epter þeirra Jllsku.

## IV. Capitule.

Isboseth verdur fyrer Fiørrœdinu, og er a þann hœtt drepinn.

Nu sem Son Sauls heyrde, ad Abner var daudur j Hebron, þa fiellust honum Hendur, og allur Jsrael fieck Skielfing.

2. Enn Son Saul hafde Tvo Hofudsmenn fyrer sijnu Herfolke, sa eine hiet Baena, enn annar Rechob, þeir voru Syner Rimon Berothiter, af Børnum BenJamin, þviad Beroth var reiknadur a medal BenJamin,

3. Og þeir Berothitar voru flœner til Gethaim, og biuggu þar sem vtlender, allt til þessa Dags.

4. Jonathan, Son Sauls, atte eirn Son, hann var Footlama, og var hann Fimm ara gamall þa þau Tijdende komu um Saul og Jonathan, af Jesreel, og hans Fooſturmoder tok hann, og flyde, og sem hun skundade j Floottanum, þa fiell hann, og vard halltur, og hann hiet MephiBoseth.

5. So geingu nu þeir Syner Rimon Berothiter, Rechob og Baena j burt, og komu til Hwsa Isboseth, þa Dagur var sem heitastur, og hann lœ j sinne Sæng um midiann Dag.

6. Og þeir komu j Hwsed ad sækia Hveite, og þeir løgdu hann j Kvidinn, og flydu j burt.

7. Þvi a þessum Tijma, sem þeir komu j Hwsed, lœ hann j sinne Sæng, j sijnu Svefnhwse, og þeir stungu hann jhel, og hiuggu af honum Høfuded. Og þeir tooku hans Hofud, og geingu burt uppa Veigenn, uppa þa sliettu Mork alla þa Nott.

8. Og bœru Hofud Isboseths til Davids, j Hebron. Og søgdu til Kongsins, Siœ, hier er Hofud Isboseths, Sonar Sauls, þijns Ovinar, hvor ed sat um þitt Lijf. DRottinn hefur a þessum Deige hefnt mijns Herra Kongsins a Saul, og hans Sæde.

9. Þa svarade David þeim, So sannarlega sem DRottinn lifer, sa frelsad hefur mijna Sœl af allre Angist.

10. Eg greip þann sem kunngiorde mier, og sagde, Saul er daudur, og hann ætlade ad hann munde hafa bored mier good Tijdende, enn eg sloo hann jhel j Ziklag, þeim eg skyllde hafa giefed Laun fyrer sijnar Frietter.

11. Enn þesser ogudleger Menn hafa myrdt og sleiged Riettlœtann Mann j hans Hwse, a sinne Sæng, Jœ, skyllda eg ecke krefia þvilijks Blods af yckrum Hondum, og burt taka yckur af Jordunne?

12. Og David baud sijnum Þienørum; þeir aflijfudu þa, og hiuggu af þeim bæde Hendur og Fætur, og heingdu þa upp hiœ Fiskevatnenu j Hebron. Enn Hofud Isboseth tooku þeir, og jordudu þad j Grof Abners, j Hebron.

## V. Capitule.

(I) David er smurdur til Konungs yfer Jsrael; (II) Vinnur Jerusalem; (III) Berst vid Philisteana.

I. Og aller Jsraels Kinþætter komu til

 fun=

fundar vid David, j Hebron, og sogdu, Sioa þu, vier erum þijn Bein, og þitt Holld.

2. Þar med og fyrrum, þa Saul var Kongur yfer oss, þa færder þu Israel vt og jnn. So hefur og DRottinn sagt til þijn, þu skallt geyma mitt Folk Israel, og vera Hertoge yfer Israel.

3. Og aller Olldungar, og aller þeir enu ellstu af Israel, komu til Kongsins j Hebron. Og Kong David giorde eitt Saattmaal vid þa fyrer DROttni, j Hebron, og þeir smurdu David til Kongs yfer Israel.

4. David var þriatijge Aara gamall þa hann tok Kongdom, og hann rijkte j Fiorutije Aar.

5. Hann rijkte sio Aar og sex Maanude j Hebron, yfer Juda, Enn j Jerusalem rijkte hann þrettan Aar og tuttugu, yfer allann Israel og Juda.

II. 6. Og Kongurenn foor til Jerusalem med sijna Menn, a mote þeim Jebusitum, sem binggu j Landenu. Enn þeir sogdu til Davids, Eige skalltu koma hier jnn, helldur munu þeir (a) Blindu og Holltu reka þig burt fra (enn þad meintu þeir) ad David skyllde ecke koma þar jnn.

(a) Þesser Blinder og Hallter voru Skwrgod þeirra Jebusita, a hvor þeir treystu, og settu þau uppa mwrana, so sem annann helgedom, so sem segde þeir so, Þa berst ecke vid oss, helldur vid Gude vora. Enn ei kolludu þeir Skwrgod sijn Blind ne Hollt, helldur Ande Guds med þeim sem Historiuna hefur skrifad, hann hefur nefnt þau God Hollt og Blind.

7. Enn David yfervann Kastalann Sion, þad er Davids Borg.

8. Og David sagde a þeim sama Deige, Hvor sem slær þa Jebusita, og gietur naad Þakrennunum, þeim Holltu og Blindu, hvoria Davids Ond hatar, hann skal vera Hofud og Hofdinge, og þvi er þad Maaltæke, Laat hvorke Blinda, nie Hallta, koma j Hwsed.

9. Og David bioo j Kastalanum, og kallade þad Davids Borg. Og David biggde þar alla vega j kring, fra Millo, og so þar jnnann til.

10. Og David gieck framm, og efldest: Og DRottinn Gud Zebaoth var med honum.

11. Og Hiram, Kongur af Tyro, sende bod til Davids, og Cedrus Trie til Veggia, og Tresmide, og Steinhoggvara, ad þeir skylldu biggia David eitt Hws.

12. Og David merkte, ad DROTTinn hafde stadfest hann til Kongs yfer Israel, og hafde upphafed hans Kongsrijke, fyrer hans Folks Israelis skulld.

13. Og David tok enn fleyre Kvinnur, og Frillur, j Jerusalem, sijdann hann var komenn fra Hebron, so honum úrdu enn fleyre Syner og Dætur fæddar.

14. Og þetta eru þeirra Nofn, sem honum fæddust j Jerusalem, Samua, Sobab, Nathan, Salomon,

15. Jebehar, Elisua, Nepheg, Japhia,

16. Elisama, Eliada, Eliphalet.

III. 17. Enn er Philistei heyrdu þad, ad David var smurdur til Kongs yfer Israel, þa foru þeir aller upp ad leita ad David. Enn sem David fornam þad, þa for hann, og droo ofann j eitt sterkt Vijge.

18. Enn Philistei komu og logdu sig nidur j Dalnum Rephaim,

19. Þa spurde David DROTTinn ad, og sagde, Skal eg fara upp jmoot þeim Philisteis? Og villt þu giefa þa j mijnar Hendur? Enn DRottinn svarade David, Far þu upp þangad, Eg vil giefa Philisteos j þijnar Hendur.

20. Og David kom til BaalPrazim, og slo þa þar, og sagde, DROTTinn sundurtvijstrade mijnum Ovinum fyrer mier, so sem þa Votn skiliast hvort fra odru. Þar af kalla menn þann sama Stad BaalPrazim*.

* Perez kallast Slit edur Skilnadur.

21. Og sijna Afgude skildu þeir þar epter, enn David og hans Menn tooku þa upp.

22. Og Philistei fooru up aptur, og logdu sig nidur j Dalinn Rephaim.

23. Og David spurde DROTTinn ad, Hann sagde, Ecke skalltu nu fara upp, helldur

dur kom þu a bak vid þa, so þu komer til
þeirra, þvert yfer fra þvi Morbertrienu.

24. Og þa þu heyrer þyt j Morbervidar
Toppenum, þa fall þu (yfer þa) þviad
DROTTinn er þa utgeinginn fyrer þier,
ad sloa Her þeirra Philistinorum.

25. David giorde so sem DROTTinn
hafde boded honum, og sloo Philisteos, fra
Geba, og þar til ad komed er til Gaser.

## VI. Capitule.

Drottens Ørk er færd fra Abinadabs Huse, og sett i sinn Stad i Tialldbudenne.

Og David samansafnade aptur ad nyu
öllum ungum Monnum j Israel,
Þriatiige Þusundum,

2. Og took sig upp, og foor med allt þad
Folk sem var hioa honum, af Juda Borgum,
ad flytia Guds Ørk upp þadann, hvorrar
Nafn heiter, DROTTins Zebaoths Nafn
byr þar a yfer Cherubim.

3. Og þeir lietu flytia Guds Ørk a einum
nyum Vagne, og tooku hana af Abinadabs
Hwse, sem bioo j Gibea. Enn Usa og Ahio,
Syner Abinadab, ooku þeim nya Vagne.

4. Og sem þeir ooku wt med Guds Ørk
af Hwse Abinadabs, sem bioo j Gibea, og
Ahio gieck fyrer Ørkenne.

5. Þa liek David, og allt Israels Hws,
fyrer DRottni, med allra handa Hliodfære,
sem af Fyrtrie voru giörd, med Horpum,
Psalterium, Trumbum, og Biollum, og Cim-
balum.

6. Og þa þeir komu til þeirrar Hlodu
Nachon, þa greip Usa til, og hiellt Guds
Ørk, þviad Uxarner geingu af Veigenum.

7. Þa gramdest Reide DROTTins yfer
Usa, so ad GUD sloo hann þar nidur, sokum
hans ofdirfdar, so ad hann doo þar hioa
Guds Ørk.

8. Þa vard David hriggur, sokum þess,
ad DRottinn giorde soddann Skard a Usa.
Og hann kallade þann sama Stad PerezUsa,
allt til þessa Dags.

9. Og a þeim sama Deige oottadest Da-
vid fyrer DROTTne, og sagde, Hvornenn
ma Ørk DROTTins koma til miin?

10. Og hann villde ecke laata flytia hana
til siin j Davids Borg, helldur liet hann fæ-
ra hana j Hws ObedEdom Gathiters.

11. Enn sem Ørk DROTTins hafde ve-
red j Hwse ObedEdom Gathiters Þria Ma-
nude, þa blessade DROTTinn hann og allt
hans Hws.

12. David Kongur spurde þetta, ad
DROttenn hafde blessad Hws ObedEdom,
og allt þad hann hafde, sokum Guds Ørkar.
Þa for hann af Stad, og sookte Guds Ørk,
og flutte hana wr Hwse ObedEdom, og til
Davids Borgar, med Glede.

13. Og sem þeir höfdu geinged framm med
Guds Ørk Sex Skref, þa offrudu þeir ei-
num Uxa, og einum feitum Saud,

14. Og David dansade fyrer af öllu meg-
ne, fyrer DROTTne, og var umgyrdtur
med einum Liinliifkyrtle.

15. Og David, og allur Israel, flutte Guds
Ørk upp med fagnade, og Basunum.

16. Enn sem Guds Ørk kom jnn j Da-
vids Borg, þa leit Michol, Dotter Sauls, ut
um glugg eirn, og sa, ad David Kongur
liek og dansade fyrer DROTTni, og hun
forsmaade hann j siinu Hiarta.

17. Enn sem þeir jnnfluttu Ørk DROt-
tins, þa settu þeir hana j sinn Stad, midt
j Tialldbwdena, þa sem David hafde upp-
reist til hennar. Og David offrade Bren-
nefoornum, og Þackarfoornum fyrer Drottne.

18. Enn sem David hafde offrad Brenne-
foornum og Þacklætisfoornum, blessade hann
Folked j DROttins Zebaoths Nafne.

19. Og hann utskipte öllu Folke, og öl-
lum Israels Sofnude, bæde Monnum og
Kvinnum, hvorium fyrer sig, eina Brandko-
ku, og eitt Kiotsticke, og eirn Mæler Viins.
Þa snere allt Folked j burt, hvor j sitt Hws.

20. Enn sem David kom nu aptur ad
blessa sitt Hws, þa gieck Michol, Dotter
Sauls, wt jmoot honum, og sagde, Hvorsu
veg-

vegsamlegur var Kongurenn af Jsrael j Dag, hvor ed afklæddest fyrer Ambœttum Þienara sinna, so sem lausloatt Folk plagar ad afklædast.

21. Enn David sagde til Michol, Eg vil leika fyrer DROTTni, þeim sem mig utvalde, helldur enn þinn Fodur, og helldur enn allt hans Hws, og hefur boded mier ad vera Hofdinge yfer DROTTins Folk yfer Jsrael.

22. Og eg vil enn nu verda minne enn so, og eg vil lijtelmotlegur vera fyrer mijnum Augum, og vegsamast med þeim Ambœttum sem þu talader um.

23. Enn Michol, Dotter Sauls, atte eingenn Born, allt til sijns Daudadags.

## VII. Capitule.

David fær Fyrerheite um Messias, þa hann villde biggia DRottni Eitt Hus.

Nu sem Kongurenn sat j sijnu Hwse, og DROTTinn hafde giefed honum hvijld fyrer ollum hans Ovinum, allt um kring,

2. Þa sagde hann til Nathan Spamanns, Siaa, eg by j einu Hwse sem er biggt af Cedrus Vide, enn Guds Ork byr under Tialldþake.

3. Nathan svarade Kongenum, Far og gior allt þad þu hefur j þinu Hiarta, þvi DROTTinn er med þier.

4. A þeirre Nott kom Ord DROTTins til Nathan, og sagde,

5. Far og seig þu mijnum Þion David, So seiger DROTTinn, Skallt þu biggia mier eitt Hws ad bwa j?

6. Hefe Eg þo ecke j nockru Hwse bwed, fra þeim Deige sem Eg færde Jsraels Born af Egyptalande, og allt til þessa Dags, Helldur hef Eg geinged j Tialldbwdum og Landtiolldum.

7. Hvar sem Eg foor med ollum Jsraels Bornum, Hefe Eg og nockurn tijma talad vid nockurn af Jsraels Kinkvijslum, sem Eg hefe bifalad ad fæda mitt Folk Jsrael, og sagt so, Þvi bigged þier mier ecke eitt Hws af Cedrus Vide?

8. Þvi skallt þu nu so seigia til Davids mijns Þions, So seiger DROTTinn Zebaoth, Eg tok þig af Saudahwsenu, ad þu skyllder vera eirn Hofdinge yfer mitt Folk Jsrael.

9. Og hefe vered med þier, hvort sem þu hefur geinged, og so hef Eg upprætt alla þijna Ovine fyrer þier, og giort þier eitt stoort Nafn, so sem Nafn Magtarmanna a Jordu.

10. Og Eg vil skicka mijnu Folke Jsrael eirn stad, og planta þad, og þar skulu þeir bwa, og ecke meir fara villt, og Vondskunnar Born skulu ecke meir þvinga þa, sem adur er skied,

11. Og fra þeim tijma er Eg skickade Domendur yfer mitt Folk Jsrael, og Eg vil giefa þier Hvijld fyrer ollum þijnum Ovinum, Og DROTTinn kunngiorer þier, ad DROTTinn vill giora þier eitt Hws.

12. Og þa þinn tijme er nu komenn, ad þu liggur sofnadur med þijnum Fedrum, þa vil Eg upp vekia þitt Sæde epter þig, hvort koma skal af þijnu Lijfe, Og hans Rijke vil Eg stadfesta.

13. Hann skal mijnu Nafne eitt Hws biggia, Og Stool hans Konungliga Rijkis vil eg * stadfesta æfinlega. *Gb: Post: 2,30.

14. * Eg vil vera hans Fader, og hann skal vera minn Sonur. Ef hann giorer eirn misgiorning, þa vil eg typta hann med Mannanna Hrijse, og med Plagum Mannanna Barna, * Ebr. 1, 5.

15. Enn mijn Miskunseme skal ecke snuast burt fra honum, so sem Eg snere henne fra Saul, hvorn Eg burt tok fra þier.

16. Enn þitt Hws og Kongsrijke skal vera stadfast æfennlega fyrer þier, og þinn Stooll skal stodugur standa Eylijflega.

17. Enn sem Nathan hafde nu sagt David oll þesse Ord, og alla þessa Vitran,

18. Þa

18. Pa kom David Kongur og var fyrer DROTTni, og sagde, Hver er Eg, DROTTinn, DROTTinn? Og hvad er mitt Hws, ad þu hefur fært mig hingad?

19. Og enn þotte þier þad ei noog, Drottinn, DROTTinn, helldur talader þu um þijns Pienara Hws sem koma skal laungum Tijma hier epter. Pad er (a) Mannsins Wijsa þess sem er GUD DROTTinn.

(a) (Pad er) Þu talar vid mig um eitt Eylijkt Rijke, þar eingenn kann Kongur ad vera, nema hann sie bæde GUD og Madur, med þoi hann skal vera minn Søn, enn skal þo vera Kongur ad Eylijfu, slijkt heyrer alleina Gude til.

20. Og hvad skal David meir tala vid þig? Pu þecker þinn Pienara, DROTTinn, DROTTinn!

21. Søkum þijns Ords, og epter þijnu Hiarta, hefur þu giort alla þessa stoora Hlute, ad þu villder kunngiora þa þijnum Pienara.

22. Par fyrer ert þu miøg mikladur, Drottinn GUD. Þviad þar er eingenn so sem þu, og þar er eingenn GUD nema þu, epter øllu þvi sem vier høfum heyrt med vorum Eyrum.

23. Þvi hvar er slijkt Folk a Jordunne sem þitt Folk Israel? Fyrer hvors Skulld GUD burtgieck, ad frelsa sier eiged Folk, og ad giora sier eitt Nafn, og ad verka soddann stoora og hrædelega Giørninga a Jordunne, fyrer þijnu Folke, hvort þu frelsader þier af Egyptalande, fra Heidingium, og þeirra Gudum.

24. Og þu tilbiost þier þitt Folk Israel, þier til æfinnlegs Folks, og þu DROTTinn ert ordenn þeirra GUD,

25. So stadfest þu nu, DROTTinn GUD, þad Ord æfinnlega, sem þu talader um þinn Pienara, og um hans Hws, og gior sem þu hefur talad.

26. Pa mun þitt Nafn miklad til æfinnlegar tijdar, so ad Menn skulu seigia, DROTTinn Zebaoth er Gud yfer Israel, og David þijns Pienara Hws skal standa stadfast fyrer þier.

27. Þviad þu DROTTinn Zebaoth, þu Israels Gud, hefur opnad þijns Pienara Eyru, og sagt, Eg vil biggia þier eitt Hws, þar fyrer hefur þinn Pienare funded sitt Hiarta, so ad hann bidur þessa Bæn til þijn.

28. Nu DROTTinn, DROTTinn! þu ert Gud, og þijn Ord skulu vera Sannleikur, Pu talader þetta hid Gooda yfer þijnum Pienara.

29. So tak nu til, og blessa þijns Pienara Hws, so þad sie æfinlega fyrer þier, þvi þu DROTTinn, DROTTinn! hefur þad talad, og med þinne Blessan skal þijns Pions Hws blessast æfinlega.

## VIII. Capitule.

(I) David underþricker nockra; (II) Fær Virding af ødrum; (III) Skipar Gooda Land-Stiorn i Israel.

I. Og þad skiede epter þetta, ad David sloo þa Philisteos, og underþrickte þa, og took Prældoms Beisled af Philisteanna Hende.

2. Hann sloo og þa Moabita so til grunna, ad hann drap tvo hlute, enn þridiung liet hann lifa, so urdu Moabitar David undergiefner, ad þeir færdu hønum Goafur.

3. David sloo og HadadEser, son Rehob, Kongenn i Zoba, þa hann foor af stad, og villde heimta aptur sijna Magt hia Vatnenu Phrath.

4. Og David fangade Pusund og sio Hundrud Riddara af þeim, og tuttugu Pusund Fotgongu lids, enn leste alla Vagna, enn hiellt epter Hundrad Vøgnum.

5. Enn þar komu Syri af Damasco, ad hiealpa Hadad Eser, Kongenum i Zoba, og David sloo tvø og tuttugu Pusund Manna af þeim Syrlendsku.

6. Og sette Folk epter i Damasco i Syria. So vard Syria undergiefenn David, ad þeir færdu hønum Goafur. Þviad DRottinn hiealpade David, hvort hellst hann foor.

7. Og David took þa Gullskiolldu, sem heyrt høfdu til HadadEsers Pienorum, og flutte þa til Jerusalem.

8. Enn af Betah og Berothai, Borgum HadadEser, tok David Kongur ofurmikenn Malm.

II. 9. Sem Thoi, Kongur af Hemath, heyrde ad David hafde nidur sleiged alla Magt HadadEser,

10. Sende hann sinn son Joram til Davids, og liet heilsa hønum vinsamlega, og bidia hønum Lucku, ad hann hafde heriad a HadadEser, og yferunned hann (þviad Thoi hafde Ofrid vid HadadEser) og hann hafde med sier Giersemar af Silfre, Gulle og Kopar.

11. Hvad David Kongur helgade Drottni, asamt þvi Silfre og Gulle sem hann helgade DRottni af øllum Heidingium, sem hann braut under sig,

12. Af Syria, af Mo..b, af Ammons Bornum, af Philisteis, af Amalech, og af Hadad Esers Herfange, Sonar Rehobs, Kongsins af Zoba.

III. 13. Og David giorde sier eitt Nafn, þa hann kom aptur, og sloo þa Syros j Salltdalnum, atian Pusunder.

14. Og hann sette Folked j alla Edomea, og allt Edom var David undergiefed, þviad DROTTinn hialpade David, hvort sem hann foor.

15. So vard nu David Kongur yfer allann Jsrael, og hann skickade øllum Lijdnum Dom og Riettinde.

16. Joab, Son ZeruJa, var yfer Strijds-Hernum, Josaphat, Son Ahilud, var Cantzeler.

17. Zadoch, Son Ahitob, og Ahimelech, Son AbJathar, voru Kiennemenn, Seraja var skrifare,

18. Banaia, Son Joiada, var settur yfer Crethi og Plethi, og Davids Syner voru (a) Høfdingiar.

(a) (Høfdingiar) Sumer utleggia þad Prestar, þv: þeir lærdu hia Prestum.

# IX. Capitule.

Konungleg Rausn og Millde Davids vid Mephiboseth Jonathans Son.

Og David sagde, Mun þar nockur Madur epter ordenn af Hwse Sauls, so ad eg meige veita hønum Miskun fyrer saker Jonathans?

2. Enn þar var eirn Pienare af Hwse Sauls, hann hiet Ziba, hann kolludu þeir fyrer David,

3. Og Kongurenn sagde til hans, Ert þu Ziba? Hann sagde, Jaa, þinn Pienare. Kongurenn sagde, Er þar enn nu nockur epter af Hwse Sauls, so ad eg meige veita hønum Gllds Miskunseme? Ziba sagde til Kongsins, Þar er enn nu epter eirn Sonur Jonathan, og er Footlama.

4. Kongurenn sagde til hans, Hvar er hann? Enn Ziba svarade, Sioa, hann er j Lodabar, j Hwse Machirs, Sonar Ammiel.

5. Pa sende David Kongur þangad, og liet sækia hann til Lodabar, af Hwse Machir Sonar Ammiel.

6. Enn sem MephiBoseth, Son Jonathan, Sonar Sauls, kom fyrer David fiell hann framm a sijna Asionu, og tilbad. David sagde, MephiBoseth; Hann svarade, Hier er eg þinn Pienare;

7. David sagde til hans, Ottast ecke, þviad eg vil veita þier Miskun fyrer sokum þijns Fødurs Jonathan, so ad eg vil giefa þier aptur alla þa Akra sem atte þinn Fader Saul, og þu skallt daglega eta Braud vid mitt Bord.

8. Enn hann tilbad, og sagde, Hvor er eg þinn Præll, ad þu snyr þier til eins dauds Hunds sem eg er?

9. Pa kallade Kongurenn Ziba, Sauls Pienara, og sagde til hans, Eg hefe giefed Syne þijns Herra allt þad sem Saul atte, og allt hans Hws.

10 So skallt þu nu, og þijn Børn, og þijner Prælar hans Akra vinna, og hyrd þad

jnn, ad þad sie Braud þijns Herra Sonar, so hann hafe atvinnu þar af. Enn MephiBoseth, Sonur þijns Herra, skal daglega eta Braud vid mitt Bord. Og Ziba hafde Fimmtan Syne, og Tuttugu Præla.

11. Og Ziba svarade Kongenum, Allt þad sem minn Herra Kongur hefur boded sijnum Pienara, þad skal hans Pienare giøra.

12. Og MephiBoseth skal eta vid mitt Bord, so sem eitt af Kongsins Børnum. Og MephiBoseth aatte eirn ungann Son, sem hiet Micha. Og aller þeir sem bi̇uggu j Hwse Ziba, þeir þionudu Mephi Boseth.

13. Og MephiBoseth bioo j Jerusalem, þvi hann aat daglega af Kongsins Borde, og var halltur a bꝏdum Footum.

## X. Capitule.

(I) Ammons Børn fara Smꝏnarlega med Davids Pienara; En (II) falla þar epter i Bardaga.

I. Og þad skiede so þar epter, ad Kongur þeirra Ammons Barna andadest, og Hanon Son hans tok Kongdom j hans Stad.

2. Pa sagde David, Eg vil veita Miskun Hanon, Syne Nahas, so sem hans Fader veitte mier miskun. Og hann sende þangad, og liet sijna Pienara hugga hann epter sinn Fodur. Enn sem Davids Pienarar komu nu j Ammons Barna Land,

3. Pa søgdu Ammons Barna Høfdingiar til sijns Herra Hanons, Hyggur þu, ad David virde þinn Fodur fyrer þijnum Augum, þar hann hefur sendt Huggendur til þijn? Hugsar þu ecke, ad þar fyrer hafe hann sendt sijna Pienara til þijn, ad hann kunne ad skꝏ fregn um Borgena, niosna um hana, og nidurbriota?

4. Pa tok Hanon Pienara Davids, og rakade hꝏlft Skiegged af þeim, og sneid hꝏlft af þeirra Klædum, allt til Belltis Stadar, og liet þa so fara.

5. Sem David var þetta sagt, þa sende hann a moote þeim, þviad Mennerner voru skammarlega lytter. Og Kongurenn liet seigia þeim, Vered j Jericho, þar til ad ydar Skiegg eru vaxenn, og komed so heim aptur.

II. 6. Enn sem Ammons Born soau þad, ad þeir voru jlla luktande fyrer David, þa sendu þeir af Stad, og leigdu sier Syrlendska, af Hwse Rehobs, og Syrlendska af Zoba, Tuttugu Pusund Manns, med footgangande Lid, og Pusund Manna af Kongenum Maacha, og af Jstob Tolf Pusund Manna.

7. Pegar David spyr þetta, þa wtsende hann Joab med allann her Strijds-Folksins.

8. Og Ammons Born fooru wt, og biuggust til Bardaga, utann fyrer Borgarhlidenu, enn þeir Syri, sem voru af Zoba, af Rehob, af Jstob, og af Maacha, voru alleina a Vøllønum.

9. Enn sem Joab sier nu þad, ad hønum er bwenn Bardage, bæde a bak og fyrer, þa wtvalde hann af øllum Yngismønnum j Jsrael, og biost j moote þeim Syrlendsku.

10. Enn þad Lid sem afgangs var sette hann under Hønd sijns Brodurs Abisai, so hann byggest j moot Ammons Børnum, og sagde,

11. Kunne so ad skie, ad þeir Syri bere mig ofurmegne, þa kom mier til Hialpar. Enn ef Ammons Born verda þier yfersterkare, þa vil eg koma þier til Hialpar.

12. Vertu Hughraustur, og lꝏt ockur vera hrausta fyrer vort Folk, og fyrer Guds vors Borger, Enn lꝏte DROTTinn ganga sem hann vill.

13. Og Joab gieck framm med Folked, sem med hønum var, ad strijda moote þeim Syris, og þeir flydu undann hønum.

14. Enn sem Ammons Born þad soau, ad þeir Syri hielldu a flootta, þa flwdu þeir og so undann Abisai, og fooru j Borgena. Epter þad snere Joab aptur fra þeim Ammons Børnum, og kom til Jerusalem.

15. Og þa þeir Syri soau sig so slegna fyrer Jsrael, þa komu þeir samann j eirn Hoop.

16. Og HadadEser sende ut, og færde ut þa Syrlendsku a hina Sijdu Vatnsins, og færde þeirra Magt þar til, og Sobach, sem var Hershofdinge HadadEser, for undann þeim.

17. Enn sem þad fieck ad vita David, þa safnade hann øllum Jsrael til samans, og foor yfer um Jordan, og kom til Helam. Og þeir Syri biuggu sig j moote David, ad strijda vid hann.

18. Enn Syri hielldu a flootta fyrer Jsrael. Og David sloo af þeim Syris Sio Hundrud Vagna, og fiorutijge Þusund Riddaralids. Þar til sloo hann og Sobach, þeirra Høfudsmann, so hann doo þar.

19. Enn þa þeir Kongar, sem voru under HadadEser, siou sig vera slegna fyrer Jsrael, þa giordu þeir frid vid Jsrael, og urdu þeim undergiefner. Og þeir af Syria þordu ecke ad veita fullting Ammons Børnum þadann j frꜳ.

# XI. Capitule.

David drijger (I) Eina Skammarlega Hoordoms Synd; og (II) Slægdarfullt Mord.

I. Og ad ꜳrenu lidnu, a þeim tijma sem Kongar voru vaner ad fara uti Herfarer, þa sende David Joab, og sijna Þienara med honum, og allann Jsrael, ad þeir skylldu fordiarfa Ammons Børn, og settust um Rabba, Enn David sat heima j Jerusalem.

2. So bar til, ad David stood upp af sinne Sæng um Kvølldtijd, og gieck uppa Þaked a Kongs Høllenne, og sꜳ af Þakenu, Kvinna var ein ad lauga sig, og su Kvinna var hardla fogur.

3. Og David sende þangad, og liet spyria epter Kvinnunne, og seigia, Er þad ecke Bersabee, Dotter Eliams, Hwsfru Uria Hethiters?

4. Og David sende bod þangad, og liet sækia hana Og sem hun kom jnn til hans, þa svaf hann med henne, Og hun hreinsade sig af sijnum Saurendum, og snere aptur heim til sijns Hwss.

5. Og Kvinnann vard þungud, og sende þegar, og liet kunngiora þad David, og sagde, Eg em ordenn Oliett.

6. Þa sende David bod Joab, Send til mijn Uriam Hethiter. Og Joab sende Uriam til Davids.

7. Og sem Urias kom til hans, þa friette David, Hvert vel tilstæde um Joab, og Folked, og Strijded.

8. Og David sagde til Uria, Far nidur j þitt Hws, og lauga Fætur þijnar. Enn sem Urias gieck ut af Kongsins Høllu, þa var borenn epter honum Kongsins Sending.

9. Og Urias foor ad sofa fyrer Kongs Hallar dyrum, þar sem aller Þienarar hans Herra lꜳu, og foor ecke nidur j sitt Hws.

10. Enn sem David var sagt, ad Urias hafde ecke fared nidur j sitt Hws, þa sagde David til hans, Ert þu ecke nykomenn heim af ferd? Þvi foorst þu ecke nidur j þitt Hws?

11. Uria svarade David, Ørkenn, og Jsrael, og Juda, eru j Landtiolldum, og Joab minn Herra, og mijns Herra Þienarar liggia a morkinne, og skyllde eg þa fara j mitt Hws, eta þar og drecka, og liggia hia minne Kvinnu? So sannarlega sem þu lifer, og þijn Sꜳl lifer, eg giore slijkt ecke.

12. David sagde til Uria, Þa vertu hier og so j Dag, enn a Morgun vil eg lꜳta þig fara. So var Urias j Jerusalem þann Dag, og þann annann Dag þartil.

13. Og David hafde hann j Bode sijnu, og hann ꜳt og drack med honum, og giorde hann druckenn. Enn ad Kvølde gieck hann ut ad leggia sig til Svefns a sijna Sæng, med sijns Herra Sveinum, og gieck ecke nidur j sitt Hws.

II. 14. Um Morguninn skrifade David eitt Brief til Joabs, og sende þad med Uria,

15. Enn hann skrifade so j Briefed, Setied Uriam j Strijded, þar sem þad er hardast, og

og vijked fra honum til Baka, so ad hann verde sleigenn, og deye.
16. Sem Joab loa nu um Stadenn, skipar hann Uria j þann stad sem hann visse hrausrasta Strijdsmenn fyrer vera.
17. Enn sem Borgarmenn geingu vt, og bordust vid Joab, þa fiellu nockrer af Davids Pienurum, og Uria Hethiter doo og so.
18, Pa sende Joab, og liet undervijsa David allt hvornenn Bardaganum geinge.
19. Og hann baud Sendemannenum, og sagde, Nær þu hefur sagt Konge allann Atburd þessa Bardaga.
20. Og ef þu sier, ad Kongurenn verdur reidur, og seiger til þijn, Pvi gaafud þier ydur so nær Borgenne j þessu strijde, Vissud þier ecke hvornenn Menn plaga ad skiota ofann af Borgarveggium?
21. Hvor sloo til Dauda AbiMelech, son JerubBeseth? Kastade ecke ein Kvinna Kvarnarsteins brote nidur a hann af Mvrunum, so hann doo j Thebez? Hvar fyrer gaasud þier ydur so nær under Borgarveggenn? Pa skallt þu seigia, Þinn Þienare Urias Hethiter er og so daudur.
22. Sendemadurenn foor og kom, og flutte David allt þad sem Joab hafde lagt fyrer hann.
23. Og Sendemadurenn sagde til Davids, Mennerner boaru oss ofurmegne, og geingu vt til vor a Vølluna, enn vier vorum epter þeim, allt til Portdyranna.
24. Enn skotmennerner skutu af Mvrunum uppa þijna þienara, og drapu nockra af Kongsins Pienørum. Þar til er Urias Hethiter, þinn Þienare, og so daudur.
25. David svarade Sendemannenum, So skallt þu seigia Joab, Laat ecke þetta þier mislijka, þviad Sverded uppetur Imest þennann, edur hinn, Hallt aframm ad strijda j moote Stadnum, so þu nidur brioter hann, og vered allhrauster.
26. Þegar Urie Kvinna frietter ad hennar Bonde Urias var fallenn, harmade hun vegna sins Hwsbonda.
27. Enn sem hun hafde vtharmad sende David epter henne, og liet leida hana j sitt Hws, og hun vard hans Eigennkvinna, og fædde honum eirn son. Enn þetta verk mislijkade DROTTni, er David giorde.

# XII. Capitule.

(I) Davids Idran; (II) Motlæte; (III) Glede; (IV) Sigur.

I. Og DROTTinn sende Nathan til Davids. Og sem hann kom til hans, sagde hann til hans, Tveir Menn voru j eirne Borg, Annar var Rijkur, enn annar Faatækur.
2. Sa hinn rijke aatte fiølda bæde Sauda og Nauta.
3. Enn sa Faatæke aatte eckert, utann eirn lijtenn Saud, hvorn hann hafde keypt, og ool hann upp, so hann vox upp hioa honum aasamt med hans Børnum. Hann aat af hans Braude, og drack af hans Kiere, og svaf i hans Fadme, og hann hiellt hann so sem eina Dottur.
4. Enn er eirn Giestur kom til hins Rijka Manns tijmde hann ecke ad taka af sijnum Saudum, nie Nautum, til ad tilreida nockud handa Giestenum sem til hans var komenn, helldur for hann, og took Saud þess faatæka Manns, og tilreidde hann handa þeim Manne sem til hans var komenn.
5. Pa gramdest David med storre Reide a moote þeim Manne, og sagde til Nathan, So sannarlega sem ad DROTTinn lifer, sa Madur er Daudans Barn, er þvilijkt giorde.
6, Þar til skal hann bitala þann Saud, fiorum Verdum, þar fyrer, ad hann giorde slijkt, og þirmde honum ecke.
7. Pa sagde Nathan til Davids, Þu ert þesse hinn same Mann. So seiger DRottinn Israelis Gud, Eg smurda þig til Kongs yfer Israel, og frelsade þig af Hende Sauls.
8. Og gaf þier þijns Herra Hws, þar med gaf eg þier hans Kvinnur j þitt faang, og gaf

gaf þier Israels og Juda Hws, Og sie þetta
oflijted, a vil eg enn leggia pad og þad til

9. Þvi hefur þu þa forsmaad DROttins
Ord, ad þu giörder soddann Illsku fyrer
hans Augu n? Uriam Hethiter hefur þu dre-
ped med Sverde, hans Hwsfru hefur þu
teked þier til Eigennkvinnu, enn hann sialf-
fann hefur þu sleiged j hel med Sverde Am-
mons Barna.

10. Nu, þar fyrer skal Sverded ecke lin-
na af þijnu Hwse æfinlega, Sokum þess, ad
þu forsmaader mig, og tokst Urie Hethiters
Hwsfru, ad hun yrde þijn Eigennkvinna.

11. So seiger DROTTinn, Sioa, Eg
vil uppvekia Olucku j giegn þier af sialfs þijns
Hwse, Og Eg vil taka þijnar Kvinnur, fyrer
þijnum Augum, og giefa þijnum Naunga
þær, og hann skal sofa hiaa þijnum Kvinnum
vid klaara Sool.

12. Þviad þu giorder þetta leynelega, Enn
eg vil giora þad fyrer øllum Israel, og j
Augsyn Solarennar.

13. Þa sagde David til Nathan, Mis-
giort hefe eg j moote DROTTne. Nathan
sagde til Davids, So hefur og DROttinn
j burt teked þijna Synd, þu munt ecke deya.

II. 14. Enn sokum þess, ad þu hefur komed
Guds Ovinum, fyrer þetta Verk, til ad lasta,
þa skal sa Son, sem þier er fæddur, vissuliga
deya.

15. Og Nathan gieck heim. Og Drot-
tinn slo þad Barn sem Hwsfrw Urie hafde
fædt David, so þad vard Daudsiukt.

16. Og David leitade til Guds fyrer Bar-
nenu og fastade, og gieck jnn, og laa um
Noottina a Jordu.

17. Þa uppstodu þeir Ellstu af hans Hw-
se, og villdu hafa reist hann fra Jordunne,
enn hann villde j øngvann maata, og eige
helldur aat hann med þeim.

18. Enn a þeim Siounda Deige þa doo
Barned. Og Davids Þienarar þordu ecke
ad seigia hønum ad Barned være daudt,
Þvi þeir hugsudu, Sioa, þa Barned var
nu enn Lijfs toludum vier vid hann, og hann
villde ecke hlyda vorre Raust. Hvad mikeð
meir mun hann af Hriggd pijnast, ef vier sei-
gium ad Barned sie daudt?

19. Enn sem David saa, ad hans Sveinar
kvisudu sijn a mille, og merkte, ad Barned
munde daudt, þa sagde hann til sinna Þie-
nara, Er Barned daudt? Þeir svorudu, Jaa.

20. Þa stood David upp af Jordunne,
og þvode sier, og smurde sig, og took a sig
ønnur Klæde, og gieck j Hws DROttins,
og badst fyrer. Enn sem hann kom heim
aptur, þa baud hann ad bera Braud fyrer
sig, og hann aat.

21. Þa sogdu hans Þienarar til hans,
Hvad er þetta fyrer eirn Hlut sem þu giorer?
A medann Barned lifde þa fastader þu og
grietst, enn nu Barned er daudt, stendur
þu upp og fær þier Mat?

22. Hann svarade, Eg fastade, og griet
sokum Barnsins, þa þad lifde, þvi eg hugsa-
de, Hvor veit nema DROTTinn verde
mier naadugur, ad Barned meige lifa.

23. Enn nu, ad þad er daudt, hvad skal
eg fasta? Eda mun eg gieta sookt þad aptur?
Eg fer vel til þess, enn þad kiemur ecke til
mijn aptur.

III. 24. Enn sem David hafde nu huggad
sijna Kvinnu Bersabee, þa gieck hann jnn til
hennar, og svaf med henne. Og hun fædde
eirn Son, þann nefnde hann Salomon, og
DROTTinn elskade hann.

25. Og hann sette hann under Hond
Nathans Spaamanns, og hann kallade hann
(a) JedidJa, vegna DROTTins.

(a) (JedidJa) þad er Elskanlegur fyrer DRottne.

IV. 26. Joab bardest nu vid Rabba Am-
mons Barna, og hann vann þann Konung-
lega Stad.

27. Og sende Bod til Davids, og liet sei-
gia hønum, Eg hefe nu strijdt a Rabba, og
eg hefe og so unned Vatns-Stadinn.

28. So kalla samann nu þad Folk sem ep-
ter

ter er, og setst um Borgena, og vinn hana, so ad eg vinne hana ecke, og eg hafe Nafn þar af,

29. Sijdann tok David allt Folked, tilsamans, og for vt, og heriade a Rabba, og vann hana,

30. Og hann took þeirra Kongs Koronu af hans Hofdi, sem vog eitt Centener Gulls, og dyrlega Steina, og hun var sett a Hofud Davids. Og hann flutte vr þeirre Borg miog miked Herfang.

31. Enn Folked, sem þar jnne var, flutte hann vt, og lagde þa under Jarnsög, og Ploog, og Jarn Fleiga, og brennde þad j Tigulofne. So giorde hann vid alla Ammons Barna Stade. Sijdann snere David heim aptur til Jerusalem, og allt Folked.

## XIII. Capitule.

(I) Um Amnons Svijvirdelega Lauslæte; og (II) Herfelegann Dauddaga.

I. Og þad skiede epter þetta, ad Absalon, Son Davids, ätte eina dægelega Systur, hun hiet Thamar, og Amnon, Son Davids, lagde Aastarhuga a hana.

2. Og Amnon lietst vera siukur, vegna Systur sinnar Thamar, þvi hun var ein Jungfrw, og þad þootte Amnon torvelldt vera ad giora henne nockud.

3. Amnon hafde eirn Vin, hann hiet Jonadab, Son Simea, Broturs Davids, og sa Jonadab var miog vitur Madur.

4. Hann sagde til hans, Hvar fyrer verdur þu, Kongs Son, so magur Dag fra Deige? Kanntu ecke ad seigia mier þad? Þa sagde Amnon til hans, Eg hefe feinged aast a Thamar, Syster Absalons, Brodur mijns.

5. Jonadab sagde til hans, Þu skallt leggiast j þijna Reckiu, og laat sem þu siert siukur, enn sem þinn Fader kiemur ad vitia þijn, þa seig þu til hans, Leyf minne Systur Thamar ad koma, so hun giefe mier ad eta, og matbwe fyrer mig eirn Riett, ad eg siae þar uppa, og ete eg af hennar Hende.

6. Sijdann lagde Amnon sig, og lietst vera siukur. Sem Kongurenn kom nu ad sia hann, Þa sagde Amnon til Kongsins, Bid eg, ad þu laater mijna Systur Thamar koma, ad hun matreide mier eirn goodann Riett, edur Tvo, so ad eg meige eta af hennar Hende.

7. Þa sende David Bod epter Thamar i Hwsed, og liet seigia henne; Far j Hws þijns Broturs Amnons, og tilbw honum Fædu.

8. Thamar gieck j Hws sijns Brodurs Amnons, enn hann laa j sinne Reckiu; hun took Deig, og hnodade, og saud fyrer hans Augum, og matreidde honum eirn sætann Riett.

9. Og hun tok Matgiordena, og gaf hana upp fyrer hann. Enn hann villde ecke eta. Þa sagde Amnon, Laat alla Menn ganga vt fra mier, og þeir geingu aller vt fra honum.

10. Þa sagde Amnon til Thamar, Ber þu Riettenn j Herberged, so eg meige eta af þinne Hende. Þa tok Thamar þann gooda Riett, sem hun hafde tilreidt, og bar fyrer Amnon sinn Brodur j Svefnherberged.

11. Og sem hun bar hann til hans, ad hann skyllde eta, þa þreif hann til hennar, og sagde til hennar, Kom hingad, mijn Syster, og sof hia mier.

12. Hun sagde, Nei, minn Broder, skamma þu mig ecke, þviad ei giorer Mann so j Jsrael. Gior ei slijkt Heimskupar,

13, Þvi, hvad skyllde eg af mier giora med mijna Skömm? Enn þu munt vera sem heimskur Daare j Jsrael. Enn tala þu þetta vid Kongenn, þa neitar hann mig þier ecke.

14. Enn hann villde ecke hlyda henne, og took hana med Naudung, og kreinkte hana, og svaf med henne,

15. Og Amnon lagde a hana ofurmikla Obyckiu, so hann hatade hana miklu meir, enn hann hafde hana aadur elskad. Og Amnon sagde til hennar, Statt upp, og far burt.

16. Hun svarade honum, Stærre er þesse Vondska enn þad annad sem þu hefur giort

vid

vid mig, ad þu burt rekur mig. Enn hann villde ecke hlyda hennar Raust,

17. Helldur kallade a sinn Svein, sem þionade honum, og sagde, Rek þu hana j burt fra mier, og loka þu Dyrønum epter henne

18. Og hun var klædd mislitum Kyrtle, þviad Konga Dætur høfdu soddann Kyrtel, medan þær voru Meyar. Nu sem hans Pienare hafde reked hana út, og lokad Dyrønum epter henne,

19. Þa dreifde Thamar Ösku uppa Høfud sier, og reif hann mislita Kirtel sem hun var j, og lagde sijna Hønd a sitt Høfud, og gieck framm groatande.

20. Og hennar Brooder Absalon sagde til hennar, Hefur þinn Broder Amnon vered hioa þier? Nu mijn Syster, þeig þu, hann er þinn Broder, legg ecke þann Hlut so a Hiarta. So var Thamar (a) einsleg j Hwse Absalons sijns Brodurs.

(a) (Einsleg) þad er, hun hiellt sig innann Gaatta, gieck ecke leingur ut, so sem Jungfru, j Samkun dur a medal Folksins.

21. Enn sem allt þetta frietter David Kongur, vard hann afar reidur.

22. Enn Absalon talade eckert vid Amnon, hvorke jllt nie gott. Enn Absalon var jlla vid Amnon fyrer þad, ad hann hafde kreinkt Thamar hans Systur.

III. 23. Enn þa Tvø Aar voru lidenn, liet Absalon klippa Saude sijna j BaalHazor, sem ad liggur under Ephraim. Og Absalon baud øllum Kongsins Bornum,

24. Og hann kom til Kongsins, og sagde, Sica, þinn Pienare lætur klippa Saude sijna (þar fyrer bid eg) ad Kongurenn, med sijnum Sveinum, vilie fara med sijnum Pienara.

25. Kongurenn svarade Absalon, Nei, minn Son, laat oss ei alla fara, so ad vier giorum þier ei kostnad. Enn sem hann bad hañ mikelega þar um, þa villde Kongurenn ecke ad helldur fara, enn hann blessade honum.

26. Þa sagde Absalon, Skal þa ecke minn Broder Amnon fara med oss? Kongureñ svarade honum, Til hvors skal hann fara med þier?

27. Þa neydde Absalon hann, so ad hann liet Amnon og øll Kongsins Born fara med honum.

28. Enn Absalon baud sijnum Sveinum, og sagde, Sicaed vel til, ad þa Amnon er ordenn Vijndruckenn, og eg seige til ydar, Slaaed Amnon, og dreped hann, ad þier sieud ohrædder, þviad eg skipade ydur þad, þar fyrer vered fullhugader, og orugger þar til.

29. Sveinar Absalon giordu vid Amnon so sem Absalon hafde boded þeim. Þa spruttu upp øll Kongsins Born, og hvør eirn og eirn stie a Bak sijnum Mwl, og flyde.

30. Enn sem þeir voru nu a Veigenum, þa flaug sa Kvittur fyrer David, ad Absalon hefde dreped øll Kongsins Born, og ad eingenn af þeim munde lifa epter.

31. Þa stod Kongurenn upp, og reif sijn Klæde, og lagde sig til Jardar, og aller hans Pienarar, þeir sem kringum hann stoodu, rifu sijn Klæde.

32. Þa svarade Jonadab, Son Simea, Brodur Davids, og sagde, Minn Herra, Hugsa ecke, ad aller Sveinarner, Kongsins Born, sieu dauder, helldur er Amnon alleinasta daudur. Þvi Absalon hefur þad geymt med sier, fra þeim Deige, þegar hann kreinkte hans Systur Thamar.

33. Þar fyrer legge minn Herra Kongur eige slijkt a Hiartad, ad øll Kongsins Born mune daud vera, helldur er Amnon alleinasta daudur.

34. Enn Absalon flyde. Og Sveirnenn a Vardhalldenu hoof sijn Augu upp, og litadest um, og sica, mikell Mannflockur kom a Veigenn, hvør epter ødrum, hioa sijdu Fiallsins.

35. Þa sagde Jonadab til Kongsins, Sica, Kongsins Born koma, þad er so skied sem þinn Pienare sagde.

36. Og sem hann hafde uttalad, Sica, þa komu Kongsins Born, upphoofu sijna Rodd og grietu. Kongurenn, og aller hans Pienarar, grietu og miøg fastlega.

37. Enn

37. Enn Absalon flyde, og foor til Thalmai, Sonar Ammihud, Kongsins j Gesur. Enn hann syrgde Son sinn alla Daga.

38. Enn sem Absalon flyde, og foor til Gesur, var hann þar j Þriu aar.

39. Og David Kongur hætte ad draga ut moote Absalon, þviad hann hafde huggast yfer Amnon, þad hann var daudur.

## XIV. Capitule.

Absalon kemst i Naad og Vinaattu aptur hiaa Fodur sijnum, fyrer fortølur einnar Vitrar Konu, epter Joabs aaeggian.

Enn Joab, Son ZeruJa, merkte, ad Kongsins Hiarta var a moote Absalon,

2. Og hann sende til Thekoa, epter eirnre Vijsdoms Konu og sagde til hennar, Læt sem þu siert harmþrwngenn, og fær þig j Sorgarbwning, og smyr ecke þig med Oleo, Helldur syn þig so sem eina Kvinnu, su sem leinge hefur graated Manna misser.

3. Og þu skallt ganga inn fyrer Kongenn, og tala vid hann so og so. Og Joab lagde henne Ord j Munn, hvad hun skyllde tala.

4. Og þa Kvinnann af Thekoa villde tala vid Kongenn, fiell hun framm til Jardar a sitt Andlit, tilbad og sagde, Hiaalpa mier Kongur!

5. Kongurenn sagde til hennar, Hvad skadar þig? Hun svarade, Eg er ein Eckia, ein Harmþrungenn Kvinna, og minn Bonde er Andaddur.

6. Og þijn Þionustukvinna aatte (epter) Tvo Sonu, þeir urdu missaatter a Akre, Og sokum þess, ad þar var eingenn sem kunne ad hiaalpa, sloo sa eine þann annann, og drap hann.

7. Og siaa, nu rijsa upp aller Frændur moot þinne Þionustu Kvinnu, og seigia, Framm sel þann sem sloo sinn Brodur j hel, so vier meigum taka hann af Lijfe, fyrer hans Brodurs Saal, sem hann drap, og afmaa hans Arf, og vilia so wtslockva minn Gneista, þann epter er, so ad Bonde minn hafe eckert Nafn epter sig a Jordunne.

8. Kongurenn svarade Kvinnunne, Far heim, eg vil giefa ut bifalning þinna vegna.

9. Kvinnann af Thekoa svarade Kongenum, Minn Herra Kongur! Sa Misgiorningur sie yfer mier og mijnu Fodurs Hwse, enn Kongurenn og hans Haasæte sie saklaust.

10. Kongurenn svarade, Hvor sem mæler a moote þier, læt hann koma hingad fyrer mig, þadann af skal hann ei snerta þig,

11. Hun sagde, Kongur, Hugsa þu til DROTTins þijns Guds, ad Bloodhefnararner verde ei ofmarger til ad fordiarfa, so ad þeir afmaae ecke minn son. Hann sagde, So sannarlega sem ad DROTTinn lifer, þa skal þar ecke falla eitt Haar a Jord af þijnum Syne.

12. Og Kvinnann sagde, Læt þijna Þionustukvinnu seigia mijnum Herra Kongenum nockud. Hann sagde, Seig þu framm.

13. Kvinnann mællte þa, Hvar fyrer hefur þu soodann hugsad j moote Guds Folke, ad Kongurenn hefur talad soddann Ord, ad hann verde sekur, og lætur ecke sækia aptur sinn hinn wtrekna?

14. Þviad vier deyum vissulega, og so sem Vatn rennur i Jordena, þvi sem ecke er hamlad, Og Gud vill ecke taka Lijfed j burt, helldur hugsar hann, ad þad wtrekna verde ecke og so af honum wtreked.

15. Þar fyrer er eg nu komenn, ad tala þetta vid minn Herra Kong, þviad Folked gierer mier sturlan. Þviad þijn Þionustu Kvinna hugsade, Eg vil fara og tala vid Kongenn, skie maa, ad hann giore þad sem hans Ambaatt seiger.

16. Þviad hann mun bænheyra sijna Þionustu kvinnu, ad hann frelse mig af þeirra allra Hende, sem mig vilia afmaa, og minn Son, af Guds Arfleifd.

17, Og þijn Þionustukvinna hugsade, Mijns Herra Kongs ord skulu vera mijn huggun, þvi minn Herra Kongur er sem Guds Eingill, so ad hann kann ad heyra

bæde gott og illt, Og þvi mun DROttinn þinn Gud vera med þier.

18. Kongurenn svarade, og sagde til Kvinnunnar, Leyn mig ecke þvi sem eg vil spyria þig, Kvinnann svarade, Minn Herra Kongur tale

19. Kongurenn sagde, Er ecke Joabs Hond med þier i ollu þessu? Kvinnann svarade, og sagde, So sannarlega sem þijn Saal lifer, Minn Herra Kongur, þa er eingenn annar, hvorke a þa hægre Hond, nie Vinstre, nema sa sem minn Herra Kongurenn sagde. Þvi þinn Þienare Joab baud mier þetta, og hann lagde þinne Þionustu Kvinnu oll þesse Ord i Munn,

20. Ad eg skyllde so snwa þessu Mæalesne, þad hefur þinn Þienare Joab giort. Enn minn Herra er vijs sem Guds Eingels Vijsdomur, ad hann skilur alla hlute a Jordunne.

21. Þa mællte Kongurenn vid Joab, Sia, eg hefe giort þetta, þar fyrer far nu og sæk Sveinenn Absalon aptur.

22. Þa fiell Joab framm a sitt Andlit til Jardar, og tilbad, og þackade Kongenum, og sagde, J Dag merker þinn Þienare, ad eg hefe funded Naad fyrer þijnum Augum, Minn Herra Kongur, ad Kongurenn giorer hvad hans Þienare seiger.

23. Sijdann bioo Joab sig, og for til Gesur, og flutte Absalon til Jerusalem.

24. Enn Kongurenn sagde, Laat hann fara i sitt Hwos aptur, og sioa ecke mitt Andlit. So kom nu Absalon i sitt Hwos aptur, og saa ecke Kongsins Andlit.

25. Enn þar var ecke so frijdur Madur a medal alls Jsraels sem Absalon, og hann hafde þa Frægd fyrer ollum Monnum, ad ecke var lyte a honum a millum Hæls og Hvirfels.

26. Og þa Menn rokudu hans Hofud (sem skiede almennelega hvort Aar, þvi honum var of mikel þyngd ad þvi; ad hann vard ad laata klippa þad af) þa vo hans Hofud Haar tvo Hundrud Sikla, epter Kongsins Vigt,

27. Og Absalon aatte þria syne, og eina Dottur, sem hiet Thamar, og hun var ein dæjeleg Kvinna ad burdum.

28. So var Absalon tvo Aar i Jerusalem, ad hann saa ecke Kongsins Andlit.

29. Og Absalon sende epter Joab, ad hann villde senda hann fyrer Kongenn, Enn hann villde ei koma til hans. Og hann sende i annad sinn, samt villde hann ecke koma.

30. Þa sagde hann til sinna Sveina, Sioed, Joabs Akurs partur (liggur) i naand mijnum, og hann hefur Bigg þar a, So fared nu, og setied Elld þar i. Þa fooru Absalons Sveinar og settu Elld uppa þann (Akurs) Part.

31. Sijdann stood Joab upp, og gieck i Absalons Hwos, og sagde til hans, Þvi settu þijner Sveinar Elld a minn Part (Akursins)?

32. Absalon sagde til Joabs, Sioa, eg sende epter þier, og liet seigia þier, Kom til mijn, so eg meige senda þig fyrer Kongenn, og villda eg hafa laated þig seigia, Þvi er eg komenn fra Gesur? Mier hefde vered betra, ad eg være þar ennu. So laat mig nu sioa Kongsins Andlit, Enn sie nockur Misgiorningur medur mier, þa sloa mig i Hel.

33. Og Joab gieck inn fyrer Kongenn, og undervijsade honum þetta. Og hann kallade a Absalon, ad hann kom fyrer Kongenn. Og hann tilbad framm a sitt Andlit til Jardar fyrer Kongenum, Og Kongurenn kysste Absalon.

## XV. Capitule.

David flyr fyrer sijnum Ogudlega Syne Absalon.

Og þad skiede so epter þetta, ad Absalon liet tilreida sier Vagna og Hesta, og Fimmtiju Menn sier til Hirdmanna.

2. Og Absalon stood ætijd snemma upp a Morgna, og gieck a veiginn hia Borgarhlide.

hlide. Og hvor sa madur sem nockur mᴈal-efne hafde, ad hann skyllde koma fyrer Konginn under Dom, þann kallade Absalon til sijn, og sagde, Af hvorre Borg ert þu? Og þegar hinn sagde honum, Þinn Þienare er af eirne Israels Ættkvijsl.

3. Þa sagde Absalon til hans, Sioa, þu hefur good og riett Mᴈalefne, Enn eingenn er settur til af Kongenum sem þig skal heyra.

4. Absalon sagde, Oh! hvor vill setia mig til Domara j Landenu, ad hvor Madur kiæme til mijn, sem nockurt Mᴈal edur Dom hefde, so ad eg hiᴈalpe honum til Riettinda?

5. Og þa nockur kom til hans, og villde tilbidia hann, þa wtriette hann sijna Hond, og took j moote honum, og kyste hann.

6. So giorde Absalon vid allann Israel, nær sem Menn komu til Doms fyrer Kongenum, Og so stal hann Israels Manna Hiortum.

7. Epter lidenn (a) Fiorutijge Aar, sagde Absalon vid Kongenn, Eg vil fara og frammkvæma Heit mitt j Hebron, sem eg hiet DROTTne.

(a) Þesse 40. Aar hofum vier ad telia, fra þvi David var first smurdur til Kongs, þvi hann var smurdur first þa hann var tvijtugur, og 10. Aar leid hann Ofsokner, og a þritugasta Aare sijnu vard hann stadfestur og medtekenn til Kongs.

8. Þviad þann tijma sem eg bioo j Gesur j Syria, þa hiet þinn Þienare einu Heite, og sagde, Ef so er, ad DROTTinn lætur mig komast heim aptur j Jerusalem, þa vil eg giora DROTTni eina Guds-þionustu.

9. Kongurenn sagde til hans, Far af stad med Fride, Og hann took sig upp, og foor til Hebron.

10. Enn Absalon hafde wt sendt Niosnar Menn til allra Israels Kinkvijsla, og liet so seigia, Nær þier heyred Hliod Basununnar, þa seiged, Absalon er ordenn Kongur j Hebron.

11. Enn þar geingu Tvo Hundrud Manna med Absalon, af Jerusalem, sem voru kallader, Enn þeir geingu j sijnum einfalldlegleika, og vissu ecke hvad under bioo.

12. Absalon sende og so epter Achitophel Giloniter, Rᴈadgiafa Davids, af hans Stad Gilo. Enn sem hann færde nu Foorner, þa vard Sambanded sterkt, og Folked hlioop til, og fiolgadest med Absalon.

13. Þa kom eirn, og kunngiorde þetta David, og sagde, Hvors Manns Hiarta j Israel filger Absalon epter.

14. David sagde til allra sinna Þienara sem hiᴈa honum voru j Jerusalem, Stondum upp og fordum oss, þviad ecke mun hier kostur ad flya undann Absalon. Flyted ydur, og forum, so hann teppe oss ecke jnne, og grijpe oss, og leide Olucku yfer oss, og slᴈae Stadenn med Sverde.

15. Kongsins Þienarar sogdu til hans, Allt hvad minn Herra Kongurenn wtvelur, Sioa, hier eru þijner Þionar.

16. Og Kongurenn foor wt gangande, og allt hans Hws. Enn hann liet tiju af sijnum Frillum epter, ad geyma Herbergia.

17. Og sem Kongurenn og allt Folked var nu wt komed gangande, stood þad langt fra Hwsenu.

18. Og aller hans Þienarar geingu med honum, þar med aller Crethi og Plethi, og aller Gethiter, sex Hundrud Manna, sem komenn voru fra Gath gangande, geingu undann Kongenum.

19. Og Kongurenn sagde til Jthai Gethiter, Þvi fer þu og so med oss? Snu þu aptur, og vert hia Kongenum, þvi þu ert wtlendur Madur, og ert komenn hingad frᴈa þijnum stad.

20. Þu komst j giær, og skyllda eg lᴈata þig j Dag ganga med oss? Enn eg mun ganga, hvort eg kann ad ganga, Snu aptur, og þijnum Brædrum med þier veitest Miskunsemd og Sannleikur.

21. Jthai svarade, og sagde, So sannarlega sem DROTTinn lifer, og so vijst sem minn Herra Kongurenn lifer, hvar hellst

sem minn Herra Kongurenn verdur, hvørt sem þad er til Lijfs, eda til Dauda, þar skal og þinn Pienare vera.

22. David sagde til Ithai, So kom og far med. So foor Ithai Gethiter, og aller hans Menn, og øll þau Børn sem voru med honum.

23. Og allt Landed griet med hæarre Raust, og allt Folked gieck med. Og Kongurenn gieck yfer um Lækenn Kedron, og allt Folked gieck undann, a þann Veg sem liggur til Eydemerkur.

24. Og sioa, Zadok var og þar, og aller þeir Levitar sem voru med honum, og bæaru Guds Sattmæals Ørk, og þeir settu hana þar. Og AbJathar gieck upp, til þess ad Folked kom allt af Stadnum.

25. Enn Kongurenn sagde til Zadok, Berid Guds Ørk aptur j Stadinn. Ef eg finn Naad fyrer DROTTne, þa lætur hann mig koma aptur, og leyfer mier ad sioa hana, og sitt Hws.

26. Enn ef hann seiger so, Eg hefe ecke þocknan a þier, Sioa þa er eg hier, giøre hann vid mig sem honum vel lijkar.

27. Og Kongurenn sagde til Zadoks Kiennemanns, O þu Sioaande! Snu þu aptur j Stadinn med Fride, og bæader yckrer Syner med yckur, Ahimaas þinn Son, og Jonathan, Son AbJathars.

28. Sioa, eg vil bijda a þessu sliettlende j Eydemørkenne, þar til ad Bodskapur kiemur fra yckur, og þid undervijsed mier.

29. So færdu þeir Zadok og AbJathar Guds Ørk aptur j Jerusalem, og voru þar.

30. Enn David gieck ad Fialle Oliveti, græatande, med huldu Høfde, og berfættur, So og allt Folked, sem var med honum, huldu Hofud sijn, og geingu græatande.

31. Og sem þad var David undervijsad, ad Achitophel være j sambande med Absalon, þa sagde hann, DROTTinn, gior þu Achitophels Raad ad heimsku!

32. Og er David kom upp a Hæder þær, þar Menn voru vaner ad tilbidia Gud, Sioa, þa mætte Husai Arachiter honum, med sundur rifnum Kyrtle, og med Molld a sijnu Høfde.

33. Og David sagde til hans, Ef þu fer med mier, þa verdur þu mier til Þyngsla.

34. Enn ef þu geingur aptur j Borgena, og seiger til Absalon, Eg er þinn Pienare, eg vil vera Kongsins, eg sem var þijns Fodurs Pienare j þann Tijma, vil nu vera þinn Pienare. So munntu mier til gagns, giora til einskis Raadagiorder Achitophels.

35. So eru og Zadok og AbJathar Prestar med þier, Hvors þu verdur vijs j Kongsins Garde kannt þu allt seigia Zadok Kiennemanne og AbJathar.

36. Sioa, þeirra Tveir Syner eru hiaa þeim, Ahimaas, Son Zadoks, og Jonathan, AbJathar Son, med þeim kannt þu ad senda mier sanna vissu af þvi sem þu heyrer.

37. Epter þetta kom Husai, Vin Davids, j Borgena, og Absalon kom til Jerusalem.

## XVI. Capitule.

(I) David er Skammyrdtur af Simei; (II) Absalon dryger storkostlega Blodskomm j Jerusalem.

I. Enn sem David var skammt geingenn fra Hædenne, Sioa, þa mætte honum Ziba, Pienare Mephiboseth, med Tvo sodlada Asna, þar a voru Tvo Hundrud Braud, og Hundrad Klasar Rusin, og Hundrad Klasar Fijkiur, og einn Leigell Vijns.

2. Kongurenn sagde til Ziba, Hvad villtu giora med þetta? Ziba svarade, Asnarner skulu vera til Reidar Kongsins Pienorum, Brauded og Fijkiurnar fyrer Sveinana ad eta, og Vijned ad drecka, þa þeir þreytast j Eydemørkenne.

3. Kongurenn sagde, Hvar er Sonur þijns Herra? Ziba sagde til Kongsins, Sioa, hann var epter j Jerusalem, þvi hann sagde, J Dag skal Israels Hws giefa mier aptur mijns Fodurs Rijke.

4. Kongurenn sagde til Ziba, Sioa, allt þad sem Mephiboseth hefur, þad skal vera

þitt

þitt, Ziba sagde, Eg tilbid, lꜳt mig finna Nꜳd fyrer þier, Minn Herra Kongur.

5. Enn sem David Kongur kom til Bahurim, Sioa, þa gieck þar eirn Madur ut, af Slekte Sauls Hwoss, sa hiet Simei, Son Gera. Hann gieck framm bolvande.

6. Og Steinum kastande ad David, og ollum Þienorum Kongsins Davids, þviad Folked, og aller þeir hiner Vollduguſtu Menn, voru honum a hægre og vinstre Hond.

7. Enn so sagde Simei, þa hann bolvade, Hier wt, hier wt, þu Bloodhundur, þu orꜳdvande Madur.

8. DROTTinn hefur nu bitalad þier allt þad Blood Hwossens Sauls, ad þu ert ordinn Kongur j hans Stad. Nu hefur DRottinn giefed Rijked j Hendur þijnum Syne Absalon. Og sioa, nu ertu midt j þinne Olucku, þvi þu ert eirn Bloodhundur.

9. Abisai, Son ZeruJa, sagde til Kongsins, Skal þesse daudur Hundur bølva mijnum Herra Konge? Eg vil fara til og slꜳ Høfuded af honum.

10. Kongurenn svarade, Þier Born ZeruJa, hvad hef eg med ydur ad giora? Lꜳted hann bolva, þviad DROTTinn baud honum, Bolva þu David. Hvor þorer ad seigia, Hvar fyrer giorer þu so?

11. Og David sagde til Abisai, og til allra sinna Þienara, Sioa, minn Son, sa sem komenn er af mijnu Lijfe, stundar epter mijnu Lijfe, hvar fyrer skyllde nu ecke og so Son Jemini (þad giora)? Lꜳted hann vera ad bolva, þviad DROTTinn baud honum þad.

12. Skie mꜳ, ad DROTTinn aalijte mijna Eymd, og umbune mier goodu fyrer hans þessa Dags Bolvan.

13. So gieck David sijna leid, og hans Menn. Enn Simei gieck med Fiallshlijdenne, jafnframt honum, og blootade, og kastade Grioote til hans, og kastade Molldar Hnausum.

14. Kongurenn kom jnn, og aller þeir Menn sem med honum voru Mooder, og endurnærdu sig þar.

II. 15. Enn Absalon, og allt Foolk Israels Manna kom til Jerusalem, og Achitophel med honum.

16. Enn sem Husai Arachiter, Vinur Davids, kom jnn fyrer Absalon, þa sagde hann til Absalon, Lucku foae Kongurenn! Lucku foae Kongurenn!

17. Absalon svarade Husai, Er þetta þijn Miskun, er þu veiter Vin þijnum? Hvar fyrer ert þu ecke farenn med Vin þijnum?

18. Husai sagde til Absalon, Ecke so, helldur, hvorn sem DROTTinn wtvelur, og so þetta Folk, og so aller Israels Menn, hans vil eg vera, og hiꜳ honum blijfa.

19. Þar næst, Hvorium skal eg þiona? Skal eg ecke þiona hans Syne? So sem eg þiongde fyrer þijnum Fodur, so vil eg vera fyrer þier.

20. Þa sagde Absalon til Achitophel, Gief wt Rꜳd, hvad vier skulum adhafast.

21. Achitophel sagde til Absalon, Sof hiꜳ þijnum Fodurs Frillum, þeim hann liet hier epter, ad geyma Hwsid. So skal allur Israel þad heyra, ad þu hefur giort þinn Fodur jlla luktande, og munu þa þess diarfare verda Hendur þeirra allra er hiꜳ þier eru.

22. Og þeir giordu Absalon eina Tialldbwd uppa Þekiunne, og Absalon lꜳ hiꜳ sijns Fodurs Frillum, fyrer Augum alls Israels.

23. Enn þa Achitophel gaf nockud Rꜳd wt a þeim Tijma, þa var þad so sem Menn hefdu rꜳdgast um vid Gud um nockud, so var oll Achitophels Rꜳdagiord, bæde hiꜳ David, og so hiꜳ Absalon.

## XVII. Capitule.

Achitophels (I) Rꜳd, og (II) Daude.

I. Og Achitophel sagde til Absalon, Eg vil utvelia Tolf Þusund Manns, og taka mig upp, og fara epter David j Nott.

2. Og eg vil yfirfalla hann, a medann

hann er Mæddur og Lwenn. Og þa eg skielfe hann so ad allt Folked, sem er hioa honum, flyr, þa vil eg sloa Kongenn alleina.

3. Enn leida allt Folked aptur til þijn. Og þa hvor eirn Madur er komenn til þijn, epter þvi sem þu villt, þa verdur allt Folked med Fride.

4. Þetta syndest Absalon gott vera, og øllum þeim Ellstu j Israel.

5. Og Absalon sagde, Kalled Husai, þann Arachiter, og heyrum vier hvad hann seiger hier til.

6. Og sem Husai kom fyrer Absalon, þa sagde Absalon til hans, Soddann hefur Achitophel talad, Seig þu framm, skulum vier þetta giora edur ei?

7. Þa sagde Husai til Absalon, Eige er þetta gott Road sem Achitophel hefur utgiefed ad þessu Sinne.

8. Og Husai sagde framar meir, Þu þecker þinn Fodur vel, og so hans Menn, ad þeir eru sterker, og med beiskum Huga, so sem ein Byrna a Mørkenne, þa hun er rænd sijnum Hwnum. So og er þinn Fader eirn Strijds-Madur, og forsomar sig ecke med Folkenu.

9. Sioa, skie moa, ad hann hafe nu falest j einhvøriu Hreise, edur j einhvørium ødrum Stad. Og ef so skier, ad þetta tekst jlla med firsta fyrer þier, og kiæme Rikte a, og segde, þar skiede eitt Slag a medal þess Folks sem Absalon epterfilgde.

10. So mun þa þegar felmtra hvørium Manne, sem annars være goodur Strijds-Madur, og hefde Hiarta sem Leon. Þvi allt Israels Folk veit, ad þinn Fader er sterkur, og fræger Strijds-Menn, sem med honum eru.

11. Enn þad roadlegg eg, ad þu safner ad þier øllum Israel, fra Dan, og allt til Berseba, so morgum sem Sand a Sioasar strøndu, og ad þu farer sioalfur med þeim.

12. So vilium vier falla yfer hann, hvar sem vier finnum hann, og vier vilium koma yfer hann, so sem þa Dogg fellur a Jordu, so vier loatum ecke eirn Lifa epter af þeim øllum Mønnum sem med hønum eru.

13. Enn ef hann safnast j eina Borg, þa skal allur Israels Mwgur bera Reip um þa somu Borg, og draga hana j Lækenn, so þar skal ecke finnast eirn Steirn epter.

14. Þa svarade Absalon, og hvør Madur j Israel, Road Husai Arachiters er betra enn Achitophels Road. Enn DROTTinn liet þad so skie, ad Achitophels goodu Road urdu hindrud, so ad DROTTinn liete koma Olucku yfer Absalon.

15. Og Husai mællte til Zadok, og Abiathar, Kiennemanna, So og so roadlagde Achitophel Absalon, og þeir enu Ellstu af Israel, enn eg hefe so og so roadlagt.

16. Þar fyrer sended nu sem skiootast af Stad, og loated David vita af þessu, og loated so seigia hønum, Vert þu ecke a þessare Nott a sliettlende Eydemerkur, helldur far þu yfer um, so ad Kongurenn skule ecke uppsvelgiast, og allt Folked, sem er hioa hønum.

17. Og Jonathan, og Achimaas stoodu hioa þeim Brunne Rogel. Og ein Amboatt gieck þangad, og sagde þeim þetta, Enn þeir fooru af stad, og kunngiordu þetta David Konge, þvi þeir þordu ecke ad loata sioa sig, ad þeir kiæme j Stadinn.

18. Enn eirn Smoasveirn soa þa, og hann undervijsade þad Absalon. Enn þeir geingu bader sem skiootast j burt, og komu j eins Manns Hws j Bahurim, hann hafde eirn Brunn j sijnum Garde, og þar stigu þeir ofann j hann.

19. Enn Kvinnann took eitt Klæde, og breidde yfer Munnann a Brunninum, og dreifde Grionum þar yfer, so eingenn skyllde þad merkia.

20. Enn sem Absalons Menn komu til Kvinnunnar j Hused, þa segdu þeir, Hvar er Achimaas og Jonathan? Kvinnann sagde til þeirra, Þeir geingu yfer um þad litla

Vatn. Enn þa þeir hofdu leitad, og ecke funded, þa fooru þeir aptur til Jerusalem.

21. Enn ad þeim burt geingnum, þa stigu þeir upp af Brunnenum, geingu j burt, og kunngiordu þetta David Konge, og sogdu til Davids, Taked ydur upp, og fared snarlega yfer um Vatned, þvi Achitophel hefur so og so gefed wt Raad moot ydur.

22. Þa reis David upp, og allt þad Folk sem var hia honum, og geingu yfer Jordan, jnn til lyste af Deige, og þar vantade ecke eirn sem ecke var geingenn yfer um Jordan.

II. 23. Enn sem Achitophel saa þad, ad hans Raad hofdu ongvann frammgang, þa sodlade hann sinn Asna, og bioo sig, og foor heim j sinn stad, giorde skipan a sijnu Huse, og heingde sig, og deyde, og var jardadur j sijns Fodurs Grof.

24. David kom til Mahanaim, Og Absalon foor yfer Jordan, og aller Israels Menn med honum.

25. Absalon hafde sett Amasa j stad Joabs yfer Herenn. Enn Amasa var þess Manns son sem hiet Jethra, eirn Israelite, sem laa med Abigail, Dottur Nahas, Systur Zeru Ja, sem var Moder Joabs.

26. Og Israel og Absalon settu sijnar Herbuder j Gilead.

27. Og sem David var komenn j Mahanaim, þa færde Sobi, son Nahas, af Bornum Ammons, af Rabbath, og Machir, son Ammiel, af Lodabar, og Barsillai Giliaditer, af Roglim,

28. Sængarklæde, Munnlaugar, Leirpotta, Hveite, Bigg, Miol, steikt Ax, Bauner, Ertur, Grion,

29. Hunang, Smior, Saude, og Naut, og Osta, til Davids, og til þess Folks sem med honum var, til Fædu, þvi þeir hugsudu, ad Folked munde lijda Hungur, Mædu og þorsta j Eydemorku.

## XVIII. Capitule.

Aumkvunarleg Afdrif Absalons.

Og David nidurskickade Folked, þad sem med honum var, og sette Hofudsmenn yfer Þusund, og yfer Hundrad.

2. Og utsende þridia part af Folkenu under Joab, og enn þridia part under Abisai, ZeruJa syne, Brodurs Joabs, og hinn þridia part under Ithai Gethiter. Og Kongurenn sagde til Folksins, Eg vil og fara wt med ydur.

3. Enn Folked svarade, Þu skallt ecke wt fara, þvi þo so sie, ad vier flyum, eda falle helft af oss, þa munu þeir ecke hyrda um oss, þvi þu eirn ert sem tiju Þusunder af oss. So er oss þad þvi betra, ad þu veiter oss lid af Borgenne.

4. Kongurenn svarade þeim, Hvad ydur synest best fara, þad vil eg giora. Kongurenn gieck j Borgarhlided, og allt Folked foor wt, Hundrudum samann, og Þusundum.

5. Og Kongurenn baud Joab, og Abisai, og Ithai, og sagde, Fared minna vegna varlega med Sveinenn Absalon. Og allt Folked heyrde þad, ad Kongurenn baud ollum Hofudsmonnonum um Absalon.

6. Enn sem Folked kom wt a Volluna j Moote Israel, þa hoofst þegar Orustann j Skoge Ephraim.

7. Og Israels Folk vard þar sleiged af Davids Þienurum, so þar skiede eitt stoort slag a þeim sama Deige, Tuttugu Þusund Manns.

8. Og Bardagenn ridladest um allt Landed, og Skoogurenn tapade miklu fleyra Folke þann Dag, helldur enn Sverded j hel sloo.

9. Og Absalon mætte Davids Sveinum, og reid einum Mwl. Enn sem Mwllenn kom under eina stoora og þickva Eik, hieck hans Hofud j Eikenne, og hieck hann so a mille Himens og Jardar, Enn hans Mwll rann framm undann honum.

10. Þa þad saa eirn Madur, kunngiorde hann

hann þad Joab, og sagde, Sioa, eg sa Absalon hanga j eirnre Eik.

11. Joab svarade Mannenum, sem hønum sagde þetta, Sioa, saastu þetta, þvi slooſtu hann þar þa ecke nidur til Jardar, og skyllda eg hafa giefed þier tiju Silfurpeninga minna vegna, og eitt Bellte.

12. Madurenn svarade Joab, Þo þu hefder veiged vot j mijna Hond Þusund Silfurpeninga, þa villde eg þo ecke hafa lagt mijnar Hendur a Kongsins Son. Þvi Kongurenn baud þier, og Abisai, og Jthai, oss aheyrondum, og sagde, Vared ydur, ad eingenn skade Sveinenn Absalon,

13. Edur hefda eg nockud falskt giort upa hættu Saalu minnar, med þvi, ad eckert maa leynt vera fyrer Kongenum, þa munder sioalfur þu hafa staded a moote mier.

14. Joab svarade, Ecke maa eg leingur tefia hioa þier. So þreif Joab þriu Spiot j sijna Hond, og stack þeim j Hiarta Absalon, þa hann enn lifde j Eikenne.

15. Og tiju Joabs Skialldsveinar kringdu um Absalon, og slou hann j hel.

16 Þa blies Joab j Basunur, og heimte Folked aptur, ad þad skyllde ecke leingur reka flootta Jsraelis, þvi Joab villde þirma Folkenu.

17. Og þeir tooku Absalon, og kostudu hønum j eina stoora Grysiu þar j Skogenum, og giordu mikenn Grioot haug upp af hønum. So flyde allur Jsrael, hvor til sinna Heimkynna.

18. Absalon hafde uppreist sier eirn stolpa þa hann nu lifde, hvor ed stendur j Kongsins Dal, þvi hann sagde, Eg a øngvann Son, þar fyrer skal þetta vera til Minningar mijnu Nafne. Og hann kallade þann Stoolpa epter sijnu Nafne, og hann kallast inn til þessa Absalons Hond.

19. Achimaas, son Zadok, sagde, Kiære, lat mig hlaupa ad seigia Kongenum, ad DROTTinn hefur giort hønum riett af sinna Ovina hende.

20. Joab sagde til hans, Þu ber hønum eingenn good tijdende j Dag, annann Dag skalltu Tijdendenn bera, enn ei j Dag, þvi Kongsins son er Daudur.

21. Enn til Cusi sagde Joab, Far þu, og seig Konge hvad þu hefur sied. Og Cusi tilbad Joab, og rann af stad

22. Achimaas, son Zadok, sagde þa j annad sinn til Joab, Hvad, Enn ef eg hleyp epter Cusi? Joab svarade, Þvi villt þu hlaupa, Minn son? Kom hingad, þviad þu ber eingenn Good Tijdinde, Hvad, Enn ef eg hleyp?

23. Hann sagde til hans, Hlaup þu. So hliop Achimaas strax (sinn) Veg, og komst fyrr enn Cusi.

24. David sat j millum tveggia Porta. og Vardhallds madurenn gieck uppa þaked Portsins, vid Mwrenn, og upplypte sijnum Augum, og sea hvar eirn Madur hlioop aleina, Og hann kallade til Kongsins, og sagde hønum þad.

25. Kongurenn sagde, Ef hann er eirn, þa munu vera good tijdende j hans Munne, sa same gieck og kom nær.

26. Þa saa Vordurenn eirn annann Mann hlaupanda, og hann kallade þegar ofann j Ported, Sioa, eirn Madur hleypur alleina. Kongurenn svarade, Þesse er og goodur Sendebode.

27. Vardhallds Madurenn sagde, Eg sie hlaup þess hins firsta so sem hlaup Achimaas, sonar Zadok. Og Kongurenn sagde, Hann er goodur Madur, og mun bera goodann Bodskap.

28. Achimaas kallade hatt, og sagde til Kongsins, Fridur! Og hann tilbad fyrer Kongenum a sijna Asionu framm til Jardar, og sagde, Blessadur sie DROTTinn þinn Gud, sem hefur giefed þa Menn under þitt Valld, sem ad upp hoofu sijnar Hendur j moote mijnum Herra Konge.

29. Enn Kongurenn sagde, Geingur og so vel Sveinenum Absalon? Achimaas svarade, Eg saa Þys mikla, þa Joab Kongsins

Þienare sende mig þinn Þienara, og eige veit eg hvad þad var.

30. Kongurenn sagde, Gack þu þangad um, og stattu þar, og hann foor og stood þar.

31. Sia, þa kom Cusi, og sagde, Good Tijdende (ber eg) Minn Herra Kongur, Drottinn hefur giört þier riett j Dag, fra Hende allra þeirra sem sig settu upp j giegn þier.

32. Þa sagde Kongurenn til Cusi, Geingur og vel Sveinenum Absalon? Cusi svarade, Fare so aller mijns Herra Kongs Oviner sem sa Sveirn, og aller þeir sem setia sig upp j moote þier, til hins vonda.

33. Þa vard Kongurenn hriggur og gieck uppa Loptsalenn j Portenu, grœtande, og þar hann so gieck, sagde hann so, Minn son Absalon! minn son, minn son Absalon, Gud giœfe eg mœtte deya fyrer þig, O Absalon, minn Son, minn Son!

# XIX. Capitule.

David kemur aptur med Virding i sitt Konungs Rijke.

Þetta friette Joab, Sia, Kongurenn grœtur og syrger vegna Absalons.

2. Og vard af Sigre þess Dags eirn Grœatur a medal alls Folksins, þviad Folked heyrde a þeim Deige sagt, Kongurenn harmar sinn Son.

3. Og Folked stal sier undann a þeim Deige, so þad kom ecke j Borgena, eins lijka og þad Folk stelst j burt hvort til skammar verdur, nær þad flyr vor Bardaga.

4. Og Kongurenn byrgde sitt Andlit, kallade hœrre Roddu, Avi, Minn son Absalon, Absalon minn son, minn son!

5. Joab gieck j Hwsed fyrer Kongenn, og sagde, A þessum Deige hefur þu Kinnroda giört øllum þijnum Þienurum, þeir sem j Dag frelsudu Lijf þitt, þinna Sona, þinna Dœtra, þinna Kvenna, og þinna Frillna.

6. Ad þu elskar þa sem hata þig, enn hatar þa sem elska þig. Þviad j Dag syner þu þad, ad ecke par hyrder þu um þijna Høfuds Menn og Þienara. Þvi eg merke vel j Dag, Hefde Absalon eirusamann lifad, enn vier værum aller dauder j Dag, þa munde þier þad riett þykia.

7. Nu þa rijs upp, og gack wt, og tala blijdlega vid þijna Þienara, þvi eg sver þier vid DROTTinn, ganger þu ecke wt, þa man ecke eirn Madur vera hia þier þessa Nott j giegnum. Og þad verdur þier verra enn allt þad Vonda sem adur hefur komed yfer þig, fra þijnum Ungdome, og allt til þessa.

8. Þa reis Kongurenn upp, og sette sig j Portid. Og þad var sagt fyrer øllu Folke, Sia, Kongurenn situr j Portenu. Þa kom allt Folked fyrer Konginn. Enn Jsrael var flwenn, hvor til sijns Heimelis.

9. Og Folked af Jsraelis Kinkvijslum þrœttade sijn a millum, og sagde, Kongurenn hefur leyst oss af vorra Ovina Høndum, og frelsade oss af Philisteis Høndum, og hann vard nu ad flya Landed fyrer Absalon.

10. Og Absalon er fallenn j Bardaga, hvorn vier høfum smurt yfer oss, þvi erud þier þa nu so kirrer, ad þier leided ecke Kongenn heim aptur.

11. Enn Kongurenn sende til Zadok og Abiathar Kiennemanna, og liet seigia til þeirra, Taled vid þa Ellstu j Juda, og seiged, Þvi vilied þier vera þeir hiner seinustu ad leida Kongenn aptur j sitt Hws? (þvi Ord alls Jsraels voru kominn fyrer Kongenn j hans Hws).

12. Þier erud mijner Brœdur, mijn Bein, og mitt Holld, og þvi vilied þier þa vera hiner seinustu, ad leida Kongenn aptur?

13. Og seiged til Amasa, Ert þu ecke mitt Bein, og mitt Holld, Gud lœte mig skie þad og þad, ef þu skallt ecke vera minn Hershøfdinge hia mier, alla þijna Daga j Joabs Stad.

14. Og hann hneigde allra Manna Hiortu j Juda, lijka sem eins Manns. Og þeir sendu af Stad til Kongsins, Kom aptur, þu og aller þijner Þienarar.

15. So kom Kongurenn aptur. Enn

sem hann kom ad Jordan, þa voru Juda Menn komner j Gilgal, ad fara ofann j moots vid Kongenn, so þeir flyttu Kongenn yfer Jordan.

16. Og Simei, Son Gera, Sonar Jemini, sem bioo j Bahurim, hann skundade sier, og foor med Juda Mønnum ofann j moot David Konge.

17. Og þar var Þusund Manns med honum af BenJamin. Þar var Sveirnenn Ziba, af Hwse Sauls, med sijnum Fimmtan Sonum, og Tuttugu Þrælum, og þeir flyttu sier yfer Jordan, framm fyrer Kongenn,

18. Og tilreiddu Feriur, ad færa Kongsins Folk yfer um, og þeir giordu þad hvad hønum þocknadest. Og Simei, Son Gera, fiell nidur fyrer Kongenn, þa hann foor yfer Jordan.

19. Og sagde til Kongsins, Minn Herra, reikna mier ecke til þennann Misgiorning, og minstu ecke a þad ad þinn Þienare styggde þig, þann Dag þa minn Herra Kongurenn gieck af Jerusalem, og Kongurenn legge þad ecke a Hiarta.

20. Þvi þinn Þienare medkenner, ad eg hefe misgiørt. Og sioa, eg er j Dag sa firste sem komenn er af øllu Josephs Hwse, ad fara ofann a moote mijnum Herra Kongenum.

21. Enn Abisai, Son ZeruJa, svarade og sagde, Og skyllde ecke Simei þar fyrer deya, sem þo bølvad hefur þeim Smurda DROttins?

22. Þa svarade David, Hvad hef eg med ydur, þier Børn ZeruJa, ad þier viljed j Dag verda mier ad Sathan? Skyllde nockur Madur a þessum Deige lꝍata sitt Lijf j Israel? Eda meinar þu, ad eg vite ecke, ad eg er ordenn Kongur j Dag yfer Israel?

23. Og Kongurenn sagde til Simei, Eige skalltu deya. Og þar uppa soor Kongurenn hønum.

24. MephiBoseth, Sonur Sauls, kom og so ofann j moote Kongenum. Hann hafde ecke hreinsad sijnar Fætur, nie sitt Skiegg, og ecke þveiged sijn Klæde, fra þeim Deige sem Kongurenn hafde j burtu geinged, og allt til þess Dags sem hann kom nu aptur med Fride.

25. Og sem hann nu kom til Jerusalem, ad mæta Kongenum, þa sagde Kongurenn til hans, Hvad kom þar til ad þu foorst ecke med mier, MephiBoseth?

26. Hann svarade, Minn Herra Kongur, Minn Þienare sveik mig, þvi þinn Þienare þeinkte, eg vil sodla eirn Asna mier til reidar, og fara so til Kongsins, þvi þinn Þienare er Footahrumur.

27. Ofann a þetta bar hann þinn Þienara j Roog vid minn Herra Kong. Enn minn Herra Kongur er so sem Guds Eingell. Gior hvad þier synest,

28. Þvi allt mitt Fodurs Hws var ecke annad enn Dauda Folk fyrer mijnum Herra Kongenum, so hefur þu sett þinn Þienara a medal þeirra sem eta af þijnu Borde, hvør Riettinde hef eg framar meir, edur hvad moa eg hroopa framar til Kongsins?

29. Kongurenn sagde til hans, Hvad villtu meira tala um þijn Efne? Eg hefe þad sagt, þu og Ziba skulud skipta Økronum ydkar a millum.

30. MephiBoseth sagde til Kongsins, Hann moa taka þad alltsamann, first ad minn Herra Kongurenn er heim komenn med Fride.

31. Og Barsillai af Gilead kom ofann fra Roglim, og flutte Kongenn yfer Jordan, so ad hann vijsade hønum Veg j Jordan.

32. Barsillai var miøg hnijgenn a efra Alldur, vel oattrædur, hann forsorgade Kongenn þa stund sem hann var j Mahanaim, þvi hann var eirn miøg mikels hꝍattar Madur.

33. Og Kongurenn sagde til Barsillai, Þu skallt fara hier yferum med mier, eg vil forsorga þig hioa mier j Jerusalem.

34. Enn Barsillai sagde til Kongsins, Hvad er epter af Alldre mijnum, ad eg skyllde fara upp med Kongenum til Jerusalem?

35. Eg er j Dag attatiju ara gamall, hvornenn skyllde eg greina hvad gott edur illt er, edur ad smacka hvad eg et eda dreck, edur heyra hvad Saungmenn edur Saungkvinnur syngia, hvar fyrer skal þinn Þienare vera leingur til Þyngsla mijnum Herra Konge?

36. Þinn Þienare skal ganga med Kongenum skamt yfer um Jordan, hvar fyrer vill Kongurenn veita mier slijk Laun?

37. Lꜳt þinn Þienara snwa aptur, so ad eg meige deya j mijnum Stad, hia Grof mijns Fodurs og minnar Modur. Sia, þar er þinn Þienare Chimeham, lꜳt hann fara yferum med mijnum Herra Kongenum, og giordu vid hann hvad þier vel lijkar.

38. Kongurenn sagde, Chimeham skal fara med mier yfer um, og eg vil giora vid hann hvad þier lijkar, og allt þad sem þu gyrnest af mier vil eg giora þier.

39. Og þa allt Folked var komed yfer Jordan, og Kongurenn med, þa kysste Kongurenn Barsillai, og blessade hann, og hann hvarf aptur j sinn Stad.

40. Og Kongurenn foor yfer um til Gilgal, og Chimeham foor med honum. Og allt Juda Folk hafde fært Kongenn yfer um, enn af Jsraels Folke var þar ecke nema Helmingur.

41. Og sia, þa komu aller Jsraels Menn til Kongsins, og sogdu til hans, Hvar fyrer hafa vorer Brædur, Menn Juda, stoled þier, og hafa fært Kongenn, og hans Hws yfer um Jordan, og alla Davids Menn med honum?

42. Þa svorudu þeir af Juda þeim af Jsrael, Kongurenn er oss nꜳenn, þvi erud þier þa reider um þetta? Eda meined þier, ad vier munum hafa þeiged Vister eda Giafer af Kongenum?

43. Þa svorudu þeir af Jsrael þeim af Juda, og sogdu, Vier hofum Tiju Hlute meir til ad telia vid Kongenn, og so vid David, enn þier. Þvi hefur þu so ovirdt mig? Var þad ecke mitt Ord j firstu ad sækia vorn Kong aptur? Enn þeir af Juda toludu hardligar helldur enn þeir af Jsrael.

## XX. Capitule.

(I) Sa Upphlaups Madur Seba fær sijn Rettu Laun; (II). Þeir hellstu af Davids Monnum eru uptalder.

I. Og þar var þa vid eirn (a) Nafnkunnugur Jllur Madur, hann hiet Seba, Son Bichri, eins Manns af Jemini, hann blies j Basunur, og sagde, Vier hofum eckert hlutskipte af David, edur Arf j Syne Jsai. Fare hvor til sinna Hybila, o Jsrael!

(a) (Nafnkunnugur) eirn af þeim storu Hofdingium af hꜳnm Adal, sem hafde stort Afhalld medal Folksins, og var mikils aktadur, og hafde miked Nafn medal Folksins so sem Catilina til Rom.

2. Þa fiell hvor Madur j Jsrael fra David, og epterfilgde Seba, Syni Bichri. Enn Juda Menn hielldu sier vid sinn Kong, fra Jordan og allt til Jerusalem.

3. Enn sem David Kongur kom heim til Jerusalem þa took hann sijnar Tiju Frillur, sem hann hafde epterlꜳted ad giæta Herbergia, og hann sette þær j Vardhalld, og fieck þeim Atvinnu, enn hann svaf ecke med þeim. Og þær voru so jnneluktar allt til sijns Dauda Dags, og lifdu eckiulijfe.

4. Og Kongurenn sagde til Amasa, Kalla þu a alla Menn Juda uppa hinn Þridia Dag, þu skallt og standa hier.

5. Og Amasa gieck af Stad, og kallade Juda tilsamans, enn hann tafde yfer þann Tijma sem hann sette honum fyrer.

6. Þa sagde David til Abisai, Nu mun Seba, Son Bichri, giora oss meire Sorg enn Absalon. Tak þu þijns Herra Þienara, og far epter honum, so ad hann ecke finne nockurstadar fastar Borger fyrer sier, og setie undann vorre Augsyn.

7. Þa fooru Joabs Menn wt epter honum, þarmed þeir Crethi og Plethi, og aller hiner hraustustu Menn. Og þeir fooru

vt af Jerusalem, ad veita eptersør Seba, Syne Bichri.

8. Enn sem þeir voru hia þeim stoora Steine j Gibeon, þa kom Amasa framm a (Veiginn) fyrer þa. Joab hafde gyrdt sig yfer siin Klæde, sem hann var j, og var gyrdur Saxe þar utann yfer, þad hieck a hans Lære j Bale, og var laust j Slijdrum.

9. Þa sagde Joab til Amasa, Fridur med þier, Minn Broder! Joab took j Skiegg Amasa med sinne hægre Hende, ad hann villde kyssa hann.

10. Enn Amasa gaf ecke giætur ad Sverdenu j Joabs Hende. Og hann stack hann med þvi j Kvidinn, so hans Innifle fiellu a Jordena, og hann stack hann ecke framar, og hann liet sitt Lijf. Enn Joab og hans Broder Abisai soktu epter Seba, Syne Bichri.

11. Og þar stod eirn af Joabs Sveinum hia honum, og sagde, Hvor sem helldur med Joab, og med David, Sa filge Joab?

12. Enn Amasa laa velltur j Bloode midt a Veigenum. Enn sem eirn (Madur) saa þad, ad allt Folked nam þar stadar, þa viek hann Amasa af Veigenum, vt a Akurenn, og breidde Klæde yfer hann, þviad hann saa, ad hvor Madur, sem kom ad honum, þa nam hann stadar.

13. Nu sem hann var tekenn af Veigenum, þa filgde hvor Madur epter Joab, ad sækia epter Seba, syne Bichri.

14. Og hann foor j giegnum allar Kinkvijsler Jsraelis, til Abel, og Beth Maacha, og um allt Haberim, og þeir heimtust samann og filgdu honum epter.

15. Þeir komu, og settust um hann j Abel, og Beth Maacha, og þeir hloodu eirn Gard umhverfis Borgena, og grafu sig ad Mvrnum, og allt Folked sem var med Joab stormade, og villde briota nidur Mvrenn.

16. Þa kallade ein vijs Kvinna vt af Stadnum, Heyred, Heyred, Seiged Joab, ad hann kome hier nær, Eg vil tala vid hann.

17. Og sem hann kom til hennar, þa sagde Kvinnann, Ert þu Joab? Hann sagde, Jaa, Hun sagde til hans, Heyr Ord þinnar Þienustu Kvinnu. Hann sagde, Eg heyre.

18. Hun svarade, Fordum tijd sögdu Menn, Hvor sem spyria vill, hann spyrie j Abel, og þa gieck þad vel til.

19. Eg er ein af þeim fridsamlegu og trulyndu Borgum j Jsrael, Og þu villt j Hel slaa Borgena og Moderena i Jsrael, Hvar fyrer villtu upp svelgia Arfleifd DROttins?

20. Joab svarade og sagde, Langt sie fra þvi, þad sie langt fra mier, ad eg vilie uppsvelgia og eydeleggia, þvi er ecke so hattad.

21. Helldur er þar eirn Madur af Ephraims Fialle, sem heiter Seba, son Bichri, hann hefur reist sig upp j moote David Konge, Selied hann eirn framm hingad, þa vil eg fara fra Borgenne. Kvinnann svarade Joab, Sia, hans Höfud skal kastast til þijn vt yfer Mvrenn.

22. Kvinnann kom jnn til alls Folksins med sijnum Vijsdome, Og þeir hinggu Höfuded af Seba, syne Bichri, og slengdu þvi til Joabs. Þa blies hann j Basunur, og þeir dreifdu sier fra stadnum, hvor til sijns Heimilis. Enn Joab kom aptur j Jerusalem til Kongsins.

II. 23. Og Joab var yfer öllum Jsraels Her. Benaja, son Jojada, var yfer þeim Crethi og Plethi.

24. Adoram var Rentumeistare. Josaphat, son Ahiluds, var Cantzeler.

25. Seia var Skrifare. Zadoch og Abjathar voru Kiennemenn.

26. Þar ad auk var Jra Jairiter Davids ypparste.

## XXI. Capitule.

(I) Um Hallære i Davids Tijd i þriu Aar; (II) Hann Vinnur Sigur yfer Philisteunum.

I. Þar var og eitt Hallære a Dögum Davids j þriu samfelld aar. Og David vitiade Andlits DROTTins. Og DROttinn sagde, Fyrer sokum Sauls, og fyrer

þess

þess Bloodhwssens, ad hann j Hel sloo þa Gibeonita.

2. Pa liet Kongurenn kalla til sijn þa Gibeonita, og sagde til þeirra, (Enn þeir Gibeonitar voru ecke af Jsraels Bornum, helldur voru þeir epterleifar af Amoritum. Enn Jsraels Born hofdu svared þeim, og Saul sokte epter ad slaa þa j hel, j sijnu Vandlæte, vegna Jsraels og Juda Barna).

3. So sagde nu David til þeirra Gibeonita, Hvad skal eg giora ydur? Og hvar med skal eg þad forlijka, ad þier vilied Blessa DROTTins Arfleifd?

4. Gibeonitar sogdu til hans, Pad er oss ecke um Gull nie Silfur ad giora, j giegn Saul og hans Hwse, og ecke helldur er vor gaaningur ad nockur Madur sie drepenn af Jsrael. Hann sagde, Hvad seiged þier þa ad eg skule giora ydur?

5. Peir svorudu Kongenum, Sa Madur sem oss fordiarfade, og ad ongvo giorde, þann vilium vier afmaa, ad eckert verde honum epter j ollum Jsraels Landamerkium.

6. Giefed oss sio Menn af hans Hwse, so vier meigum uppheingia þa fyrer DRottne, i Gibea Sauls, sem DROTTinn utvalde. Kongurenn sagde, Eg vil giefa ydur þa.

7. Enn Kongurenn þirmde MephiBoseth, Syne Jonathan, sonar Sauls, sokum þess Svardaga DROTTins, sem var j millum þeirra David og Jonathan, sonar Sauls.

8. Enn þa tvo sonu sem Rizpa, Dotter Aia, hafde fædt Saul, Armoni og Mephi Boseth, þar til fimm sonu Michol Dottur Sauls, sem hun hafde fædt Adriel, syne Barsillai af Mahaloth, took Kongurenn,

9. Og gaf j þeirra Gibeonita Hendur. Og þeir heingdu þa upp a, Fiallenu fyrer DROTTne. So fiellu þeir sio j einu, og doou j ondverdum Kornskurdar tijma, þa Menn tooku til ad skiera upp Bigg.

10. Pa took Rizpa, Dotter Aia, eitt Hærklæde, og breidde yfer Biarged, i ondverdum Kornskurdenum, þar til ad Vatn draup af Himne yfer þa, og eige liet hun Fugla Loptsins setiast a þa um Daga, og eige helldur Dyr a Morkenne um Nætur.

11. Og David fieck ad vita hvad Rizpa, Dotter Aia, Frilla Sauls, hafde giort.

12. Og David foor og took Bein Sauls, og Bein Jonathan, hans sonar, af Borgoronum j Jabes, j Gilead (sem þeir hofdu stolid af Bethsan Stræte, þar sem Philistearner festu þa upp, a þeim tijma þa Philistearner sloou Saul j hel a Fialienu Gilboa).

13. Og hann flutte þau upp þadann, og safnade þeim ollum samann vid Bein þeirra sem heingder voru,

14. Og þeir jordudu Bein Sauls, og Bein hans Sonar Jonathan, j BenJamins Lande, til Zela, j Grof hans Fodurs Kis, Og þeir giordu allt so sem Kongurenn baud. Og so vard Gud til frids vid Landed þar epter.

II. 15. Philistei efla enn Ofrid j moote Jsrael. Og David foor ofann, og hans Pienarar med honum, og bordust vid Philisteos. Og David vard moodur.

16. Og Jesbi af Nob (hvor ed var eirn af Rapha Bornum, hvors Spiot ad vo þriu Hundrud Punda Kopars, og hann hafde ny Vopn) hann ætlade ad drepa David.

17. Enn Abisai, son ZeruJa, hiaalpade honum, og drap þann Philisteum. Pa svooru Davids Menn honum, og sogdu, Eige skalltu hiedann j fra ganga med oss j Bardaga, ad ei wt slokne Lios j Jsrael.

18. Enn epter þetta uppbiriadest eirn Bardage j Nob vid Philisteos. Par sloo Sibechai af Husath Saph, hvor og ed eirn var af Bornum Rapha.

19. Og þar hoofst enn Bardage j Gob vid Philisteos, j hvorium Elhanan, son Jaere Orgim, af Bethlehem, sloo Goliath Gethiter, sem hafde eitt Spiot, hvors skapt var sem Vefiar Rifur.

20. Og þar hoofst Bardage j Gath, þar var eirn hær Madur, sem hafde sex Fingur a sijnum Hondum, og sex Tær a hvorium sijnum

num Fæte, þad eru Fiorer og Tuttugu ad tolu, hann var og fæddur af Rapha.

21. Og þa hann talade hædelega vid Israel, þa sloo Jonathan hann, son Simea, Brodurs Davids.

22. Þesser aller fiorer voru fædder Rapha j Gath, og fiellu fyrer David og hans Þienara Hondum.

## XXII. Capitule.

David þackar DRottne fyrer Frelsun fra Margfaldar Storre Hæaskasemd og Olucku.

Og David talade Ordenn þessa * Lofsaungs fyrer DROTTni, Þann Tijd ad DROTTinn hafde frelsad hann af Hende allra hans Ovina, og af Hende Sauls. og mællte. *Psal. 18, 3.

2. DROTTinn er Mitt Biarg, og Mitt Slot, og Minn Hiaalpare.

3. Gud er Minn Stirkur, a hvorn eg true, Minn Skiolldur og Horn Minnar Heilsu, Minn Verndare og Mitt Athvarf, Minn Frelsare, þu sem hiaalpar mier fra Ofbelldenu.

4. Eg vil lofa og akalla DROTTinn, So verd eg frelsadur fra mijnum Ovinum.

5. Þviad Daudans Pijnur hofdu spennt mig, Og Belials Becker skielfdu mig.

6. Helvijtis Bond hofdu umspennt mig, Og Daudans Snorur voru fallnar yfer mig.

7. Þa mier er Angursamt kalla eg a DROTTinn, og hroopa til mijns Guds, So heyrer hann mijna Raust af sijnu Mustere, og mitt Kall kiemur fyrer hann til hans Eyrna.

8. Jordenn bifadest, og hrærdest, Himensins Grundvollur hristest og bifadest, þa hann var reidur.

9. Þar gieck Reykur vpp af hans Nøsum, Og fortærande Elldur af hans Munne, So ad þar af leiptrade.

10. Hann beygde Himnana, og foor ofann, Og þar var Mirkur under hans Footum.

11. Og hann for a Cherub, og flaug þadann, Og hann sveimade a Vængium Vindarins.

12. Hans Tialld umhverfis hann var Mirkur, Og svart þickt Skij.

13. Af Birtunne fyrer honum brann med Elldingu.

14. DROTTinn dunade af Himnenum, Og sa Allra-Hæsste liet vt sijnar Reidarþrumur.

15. Hann skaut sijnum Pijlum, og sundurdreifde þeim, Hann liet Elldingar koma og hræda þa.

16. Þa saau Menn Vatnsgusurnar, Og Jardarennar Grundveller opnudust, af Straffe DROTTins, af Andanum, og Fnysingum hans Nasa.

17. Hann sende vt af Hædum ad sækia mig, og hann droo mig vt af miklum Votnum.

18. Hann frelsade mig fra mijnum sterkum Ovinum, og fra þeim sem mig hotudu, og mier yfersterkare voru.

19. Þeir mig yferfiellu j minne Mootgangs Tijd, og DRottinn var mitt Trvonadar Traust.

20. Hann færde mig vt þar sem rvmt var um, hann rickte mier j burtu, þviad hann hafde Þocknan a mier.

21. DROTTinn giorer vel vid mig epter minne Riettvijse, Hann bitalar mier epter Hreinleik minna Handa.

22. Þvi eg helld DROTTins Vegu, og er ecke ogudlegur jmoote mijnum Gude.

23. Þvi eg hefe alla hans Dooma mier fyrer Augum, og eg kasta ecke hans Bodordum fra mier.

24. Helldur em eg flecklaus fyrer honum, og eg vakta mig fyrer Syndenne.

25. Þar fyrer launar DROTTinn mier epter minne Riettvijse, epter mijnum Hreinleika fyrer hans Augum.

26. Hia þeim Heilogu ertu Heilagur, hia þeim Goodu ert þu Goodur,

27. Hioa þeim Hreinu ertu hreinn; og hioa þeim Þversnunu ertu þversnuenn.
28. Þvi þu hiaalpar þvi Fatæka Folke, og med þijnum Augum nidurþricker þu þa hoafu.
29. Þvi þu DROTTinn ert mitt Lioos, DROTTinn upplyser mijn Mirkur.
30. Þvi med Þier kann eg j giegnum ad ganga Hermanna Fylkingar, og med mijnum Gude kann eg ad stockva yfer Muurenn.
31. Guds Veiger eru Flecklauser, Mœal DROTTins er reynt vid Elldinn, Hann er Skiolldur allra þeirra sem a hann treysta.
32. Þvi hvor er GUd utann DROTTinn? Og hvor er Hioalp utann Vor GUd.
33. GUd stirker mig med Krapte, og vijsar mier a eirn flecklausann Veg.
34. Hann giorer mijnar Fætur so sem Hiartar (Fætur) og setur mig a mijna Hæd.
35. Hann kienner mijnum Hondum ad beriast, og hann lærer mijna Arma ad spenna Stoalbogann.
36. Og þu giefur mier þinn Hioalprædis Skiolld, og þa þu audmyker mig, þa gio-rer þu mig stoorann.
37. Þu giorer under mier noog Gangrwm, so ad mijner Hælar skridne ecke.
38. Eg vil veita mijnum Ovinum eptersør, og eydeleggia þa, og eige aptur snwa fyrr enn eg hefe giort þa ad ongvu.
39. Eg vil fyrerkoma þeim og j sundurmolva þa, og þeir skulu eige standa mier j moote, þeir munu falla under mijnar Fætur.
40. Þu kannt ad brynia mig med stirkleik j Bardaga, þu kannt ad kasta þeim under mig, sem setia sig upp j moote mier.
41. Þu giefur mier mijna Ovine a flootta, so eg eydelegge þa sem mig hata.
42. Þeir (a) hallda sig af Hiarta til, enn þar er eingenn sem hioalpar, til DROTTins, enn hann svarar þeim ecke.

(a) (Hallda sig af Hiarta) Þeir vilia forskullda Gott af GUde med margvijslegre Guds Dyrdkan og Þionustu, og hafa hiartanliga Meining þar med, og giora þad af alvœrn, enn þo an Guds Ords, af sijnum eiginn Vilia og Aforme, so sem vorer Munkar og Hioatruendur giora.

43. Eg vil melia þa, so sem Dupt a Jordunne, Eg vil giora þa ad Ryke, og sundurdreifa þeim so sem odrum Gatna Saur.
44. Þu hioalpar mier fra þvi þrætugiarna Folke, og vardveiter mig til eins Hofuds a medal Heidingianna, Eitt Folk, sem eg þecke ecke, þionar mier.
45. Þad hefur brugdest annarlegum Bornum moote mier, og þeir hlyda mier med hlydnum Eyrum.
46. Þau annarlegu Born eru ad þrotum komenn og vafenn j þeirra Bondum.
47. DROTTinn lifer, og Lofadur verde Minn Stirkur, og GUd stirkur mijns Hioalprædis skal upphefiast.
48. GUd sem giefur mier Hefndena, og fleyger Folkenu under mig.
49. Hann hioalpar mier fra mijnum Ovinum, þu upphefur mig fra þeim sem settu sig jmoote mier, þu hioalpar mier fra þeim Illgiornu.
50. Þar fyrer vil eg þacka þier DROTtinn, a medal Heidingianna, og þijnu Nafne Loffsyngia.
51. Sa ed audsyner sijnum Konge stoort Hioalpræde, og giorer vel vid sinn Smurda David, og vid hans Sæde æfinnlega.

## XXIII. Capitule.

(I) Þau Sijdurstu Ord er David talade fyrer sitt Andlaat; og (II) um Afreks Verk hans Kappa.

I. Þesse eru þau sijdurstu Davids Ord. Þad sagde David, Sonur Isai, Þad sagde sa Madur sem upphafenn er til ad vera Smurdur Jacobs Guds, Lystelegur med Israels Psalmum.
2. Ande DROTTins talade fyrer mig, og hans Ord eru skied fyrer mijna Tungu.
3. GUd Israels sagde til mijn, Sa Sterke Israels talade, Sa Riettferduge Stiornare a medal Mañanna, Sa stiornare j Guds Otta.
4. Og lijka sem Lioosed er um Morgnana,

nær Solenn geingur upp um Morguneun, (a) oan Skija, þar sem Grased vex a Jordunne, af Skine epter Regned.

(a) (oan Skija) Moses upphoof Logmoalsins Rijke a Fiallenn Sina, med Reidarþrumum, Skijum og Elldingum hrædeleaum, enn þetta Rijked skal verda lystelegt, so sem um Vor Tijma, þegar doggvad hefur, og Solenn skijn oarla.

5. Þvi mitt Hws er ecke so hioa Gude, þvi hann sette mier eirn Scattmoala, sem er Eylijfur, og j allann moata vel skickadur, og vardveittur, þvi oll mijn Hioalp og Gioringur er þad, ad (b) Eckert vex.

(b) (Eckert vex) Eckert Kongarijke er so hoatt fyrer Gude, mun og ecke helldur so vaxa, helldur forganga, alleinasta þetta Rijked helldst vid Magt eylijflega.

6. En (c) Belial eru allersamann sem wtkastader Þistlar, hvoria ed Mann kann ecke ad taka med Hondunum,

(c) (Belial) Eru þeir sem eru Ovviner Rijkesins Christi, so sem Gydingar, Papistar, Kiettarar, Tyrkiar, og etc. Þeir vilia alleina vera hiner nytsomustu og bestu, og eru þo þeir skadlegustu, þar fyrer heita þeir Belial, Þeir onytsomustu, edur skadsomustu, so seiger Jerem. 23, 32. Um þa folsku Spaamenn, þeir eru med sinne Nytseme til ongrar Nytseme þessu Folke, þad er, þeir eru þeir skadsamlegustu, j þvi hinu sama, er þeir vilia nytsamer vera.

7. Helldur, hvor sem taka skal a þeim, hann moa hafa Joarn og Spiotskapt j Hende, og þeir skulu uppbrennast med Ellde j þeirra (d) Heimelum.

(d) (Heimelum) Gydingar meintu, ad sitt Rijke være so obrigdullt, ad þeir stæde a so fostum Fæte, ad þad være omogulegt ad þeim kynne ad fordiarfast med þvi þeir være Guds Folk, Rijke, Ættmenn, og Guds eigenn Eign, framar ollum Heidingium Rom. 9, 4. hvorium ad tilheyrde Barnanna Ut valning og Vegsemdenn, og etc. Enn þad, first þeir striddu j giegn Gude, þa heiter þad, Hann ni dursette þa Volldugu af Stoole.

II. 8. Þesse eru Nofn Davids Kappa, Jesabeam, Son Hachmoni, sa ypparste a medal þriggia, hann upplypte sijnu Spiote, og drap oatta Hundrud a einum Tijma.

9. Næst honum var Eleasar, Son Dodo, Sonar Ahohi, medal þeirra þriggia Kappa hioa David, þann Tijd þeir brijxludu Philisteis, og voru þar samankomner til Bardaga, og Israelis Menn fooru upp,

10. Þa stood hann, og sloo Philisteos, so leinge, ad hans Hond þreyttest og stirdnade ad Sverdenu. Og DROttinn gaf eina mikla Hioalp a þeim Tijma, so ad Folked snere aptur, epter honum ad ræna.

11. Næst honum var Samma, Son Age Harariters. Þa Philistei sofnudust samann j nockru Þorpe, þa var þar eirn Akur-fullur Hirsgriona, og þa Folked flyde fyrer Philisteum.

12. Þa gieck hann framm midt a Akurenn, og frelsade þa, og sloo Philisteos, og Gud gaf eina mikla Hioalp.

13. Og þesser Þrijr ypparstu, a medal Þriatijge, komu ofann til Davids, um Kornskurdar Tijma, j þann Heller Adullam, enn Mannsofnudur þeirra Philistinorum loa j Raphaim Dal.

14. Og David var a þeim Tijma j nockru Virke. Enn Folk þeirra Philistea loa j Bethlehem.

15. Og David fieck Lysting, og sagde, Hvor vill sækia mier Vatn ad drecka af þeim Brunne j Bethlehem under Borgarhlidenu.

16. Þa brutust þeir Þrijr Kappar j giegnum Philisteanna Herbuder, og jusu Vatned af Brunnenum, þeim sem var j Bethlehem, under Portenu, og þeir boaru, og færdu David þad, enn hann villde ecke drecka þad, helldur hellte hann þvi wt fyrer DROttni,

17. Og sagde, DROTTinn forde mier ad eg skyllde þad giora. Er þad ecke þeirra Manna Blod, sem settu sig j Lijfshoaska, og geingu þangad? Og hann villde ecke drecka þad. Þetta giordu þeir þrijr Kappar.

18. Abisai, Joabs Broder, Son ZeruJa, var og ypparstur a medal þriggia. Hann upplypte sijnu Spiote, og slo Þriu Hundrud, hann var og nafnkunnugur a medal þriggia.

19. Og sa enn dyrlegaste a millum þeirra þriggia, og var þeirra Ypparstur. Enn var þo ecke jafn vid hina þria. 20. Be-

20. Benaja, son Jojada, sonar Jshails, var mikell j giorningum, af Kabzeel, Hann drap Tvo Moabs Leon, og hann gieck nidur, og drap eitt Leon j einum Brunne a Sniotijma.

21. Hann drap og eirn hrædelegann Egyptskann mann, hvør ed hafde eitt Spiot j sinne Hende, Enn hann gieck ofann til hans med Staf, og kippte Spiotenu af þess Egyptska Hende, og drap hann med hans eigenn Spiote,

22. Pad giorde Benaja, son Jojada,

23. Og hann var allfrægur a millum þeirra þriggia Kappa, og ragiætare enn þeir þriatijge, Enn ecke kom hann til jafns vid þa þria. Og David giorde hann sitt heimulegt Raad.

24. Asahel, Broder Joabs, er a medal þeirra þriatijge. Elhanan, son Dodo, af Bethlehem.

25. Samma Haraditer. Elika Haraditer.

26. Heletz Paltiter, Jra, son Jkes, Thekoiter.

27. Abieser Anthothiter. Mebunai Husathiter.

28. Zalmon Ahohiter. Maherai Nethophathiter.

29. Heleb, son Baena, Nethophathiters Jthai, son Ribai, af BenJamins Børnum i Gibea.

30. Benaja Pirgathoniter. Hidai af Læk Gaas.

31. Abialbon Arbathiter. Asmaveth Barhumiter.

32. Eliaheba, Saalbonither. Born Jasens og Jonathan.

33. Samma Harariter. Ahiam, son Sarar Harariters.

34. Eliphelet, son Ahasbai, sonar Maechati. Eliam, son Achitophel Giloniter.

35. Hezrai Carmeliter. Paerai Arbiter.

36. Jegeal, son Nathan af Zoba. Bani Gaditer.

37. Zeleg Ammoniter. Naharai Beerothiter, Skialldsveirn Joabs, sonar Zeru Ja.

38. Jra Jethriter. Garab Jethriter.

39. Uria Hethiter. Pesser aller samann eru Sio og þriatijge.

# XXIV. Capitule.

(I) Um Metnad Davids i þvi, ad telia Folked; (II) Um Straff sem kom þar fyrer, sem var i Drep-Sott.

I. Og DROTTins Reide gramdest enn yfer Jsrael, og hann orvade David upp a medal þeirra, so hann sagde, Far þu og tel Jsrael og Juda.

2. Og Kongurenn sagde til Joabs, sijns Strijds Hofudsmanns, Gack um medal allra Kinkvijsla Jsraelis, fra Dan og til Ber Seba, og tel Folked, so eg meige vita Hvorsu margt þad er.

3. Pa sagde Joab til Kongsins; DRottinn Gud þinn auke vid þetta Folk, so sem þad er nu, enn Hundradsinnum so miked, ad minn Herra Kongurenn meige sioa sijna Augna lyst þar a, Enn hvada lyst hefur minn Herra Kongurenn a slijku efne?

4. Enn Kongsins Ord gieck framm j moote Joab og Hershofdingiunum. So foor Joab og Hofudsmennerner Hersins vt fra Kongenum, ad telia Jsraelis Folk.

5. Og þeir geingu yfer Jordan, og settu sijnar Tialldbvoder j Aroer, hægrameigenn hioa stadnum sem liggur j Gads Læk, og til Jaeser.

6. Og komu til Gilead, og ofann j Landed hioa Hadsi, og komu til DanJaan, og um kring Zidon.

7. Og komu til þess fasta Stadar Tyro, og til allra Borga Heviter, og Cananiter, og komu sudur vt moot Juda til BerSeba.

8. Og fooru kringum allt Landed, og komu til Jerusalem, ad lidnum niju Manudum, og Tuttugu Dogum.

9. Og Joab fieck Kongenum tolu alls Folksins, þad sem taled var, og þar voru j Jsrael aattasinum Hundrad Pusunder sterkra

Manna, sem vot droou Sverd, og af Juda Fimmsinnum Hundrad Pusund Manns.

10. Og David sloo hans eiged Hiarta, þa Folked var taled. Og David sagde til DROTTins, Punglega hefe eg syndgast, ad eg hefe þvilijkt giort. Og nu DRottinn, Tak burt Rangslæte þijns Pienara, þvi eg giorde miøg oviturlega.

II. 11. Nu sem David stood upp um Morgunenn, þa kom Ord DROTTins til Gad Spaamanns, hvør ed var Siaaude Davids, og sagde.

12. Far og seig so til Davids, So seiger DROTTinn, Eg set fyrer þig þrennt, kioos þu eitt af þeim, hvad eg giore þier.

13. Gad kom til Davids, og undervijsade hønum þad, og sagde til hans, Villt þu ad þar kome Hallære j þitt Land, j Siø Aar? Eda ad þu verder farflotta fyrer þijnum Ovinum þria Maanude, og ad þeir sækie epter þier? eda ad þar sie þriggia Daga Drepsott j þijnu Lande? So athuga þu nu og sia, hvad eg meige seigia þeim aptur sem mig sende.

14. David sagde til Gad, Miøg þreyngiunst eg. Enn laatum oss falla j Hendur DROTTins (þvi hans Miskunsemd er stoor) Eg vil ecke falla j Mannanna Hendur.

15. So sende DROTTinn drepsott j Israel, fra Morgne og inn til aasetts tijma, so ad þar doou af Folkenu, fraa Dan og til BerSeba, Siøtijger Pusunder Manna.

16. Og sem Eingellenn vtriette sijna Hond yfer Jerusalem, ad fordiarfa hana, þa angrade DROTTinn þa Hørmung, og sagde til Eingelsins, þess sem fordiarfade Folked, Pad nægest, halltu nu þinne Hende af. Enn DROTTins Eingell var þa hiaa Laafagarde Arafna (a) Jebusiters.

(a) (Arafna) Þesse Arafna hefur vered Kongur þeirra Jebusita j Jerusalem, og hefur umvendast til Guds, og vard fromur og Saaluholpenn, og hefur aflagt Konglega Tign fyrer Guds saker.

17. Enn sem David sa Eingelinn þann sem sloo Folked, þa sagde hann til DROTtins, Sia, eg hefe syndgast, eg hefe giort þann Misgiorning, Hvad hafa þesser Sauder giort? Laat þijna Hond vera a moote mier og mijns Fodurs Hwse.

18. Og a þeirre somu stundu kom Gad til Davids, og sagde til hans, Far upp og gior DROTTne Alltare j Laafagarde Arafna Jebusiters.

19. So gieck David upp, so sem Gad hafde sagt, og DROTTinn hafde boded.

20. Og sem Arafna leit vid, sa hann, ad Kongurenn kom til sijn med sijnum Pienorum, og hann tilbad framm a sitt Andlit til Jardar, og sagde,

21. Pvi kiemur minn Herra Kongurenn till sijns Pienara? David svarade, Til þess, ad kaupa þinn Laafagard ad þier, og giora DROttni eitt Alltare, so ad þesse Plaaga mætte linna af Folkenu.

22. Arafna sagde til Davids, Minn Herra Kongur take og fornfære so sem hann vill. Sia, þar er Uxenn til Brennefoornar, og Sledenn, og Reidenn Uxans, til ad heimta Elldevidenn.

23. Og Arafna Kongur gaf Kongenum allt. Og Arafna sagde til Kongsins, DROttinn þinn Gud laate þig vera sier þacknæmelegann.

24. Enn Kongurenn sagde til Arafna, Ecke skal so vera, helldur vil eg kaupa þad af þier fyrer sijna Peninga, þvi ad eg vil eige færa DROTTni mijnum Gude Brennefoorner af þvi sem eg þigg giefins. Sijdann keypte David Laafagardenn, og Uxann, fyrer Fimmtijge Siklos Silfurs.

25. Og hann reiste DROTTne þar eitt Alltare, og færde Brennefoorner og Packlætis Foorner, Og DROTTinn vard saattur vid Landed, og Plaagunne linnte af Israels Folke.

Ender þeirrar Annarar Samuelis Bookar.

Fiorde

# Fiórre Book Konganna.

## I. Capitule.

Salomon er smurdur til Konungs yfer allann Israel.

Og sem David Kongur giørdest nú gamall og vel alldradur, kunne hann ecke ad hitna, enn þott hann være Fötum þakenn.

2. Pa søgdu hans Pienarar til hans, Loated þa leita handa mijnum Herra Kongenum ad Stulku nockre, sem ad er Jungfrw, ad hun stande fyrer Kongenum, og þione hønum, og sofe j hans Fadme, og verme minn Herra Kongenn.

3. Og þeir leitudu j øllum Israels Landamerkium, epter frijdre Meyu, og fundu Abisag af Sunem, og leiddu hana fyrer Kongenn.

4. Og hun var miøg væn Jungfrw, og hun ool Onn fyrer Kongenum, og þionade hønum. Enn Kongurenn kienndе hana ecke.

5. Enn Adonia, Son Hagith, sette sig upp, og sagde, Eg vil vera Kongur. Og hann tilreidde sier Vagna, og Riddara, og Fimmtiju Menn til Hirdmanna framme fyrer sier.

6. Enn hans Fader villde ecke hriggia hann j sinne Tijd, so hann segde, Þvi giører þu so? Hann var og miøg frijdur Madur, og hann hafde gieted hann næst epter Absalon.

7. Og hann hafde sijna Roadagiørd med Joab, Syne Zeruja, og med AbJathar Preste, þeir hioalpudu Adonia.

8. Enn Zadok Kiennemadur, og Benaja, Son Jojada, og Nathan Spoamadur, og Simei, og Rei, og Davids Kappar, voru ecke med Adonia.

9. Og þa Adonia offrade Nautum og Saudum, og feitu Fie, hioa Soheleth Steine, hvor ed liggur hioa heim Brunne Rogel, þa baud hann øllum sijnum Brædrum Kongsins Sonum, og øllum Mønnum j Juda, Kongsins Pienorum, þar til.

10. Enn Spoamannenum Nathan, og Benaja, og Køppunum, og Salomon sijnum Brodur, baud hann ecke.

11. Pa sagde Nathan til BerSabee Salomons Modur, Hefur þu ecke heyrt, ad Adonia, Sonur Hagith, er ordenn Kongur, enn vor Herra David veit þar ecke af?

12. So kom nu, og vil eg giefa þier eitt Road, so þu frelser þijna Soal, og so Salomonis Soal þijns Sonar.

13. Goack af Stad og jnn fyrer Kongenn David, og seig þu til hans, Minn Herra Kongur! Hefur þu ecke svared þinne Pionustu Kvinnu, og sagt, Pinn Son Salomon skal vera Kongur epter mig, og hann skal sitia a mijnum Stool? Þvi er þa Adonia ordenn Kongur?

14. Sioa, A medann þu ert enn þar, og talar vid Kongenn, þa vil eg koma þangad epter þier, og fullkomlega wt tala þijn Ord.

15. Og BerSabee gieck jnn fyrer Kongenn j Herberged, og Kongurenn var miøg gamall, enn Abisag af Sunem þionade Kongenum.

16. Og BerSabee hneigde sig, og tilbad Kongenn. Kongurenn sagde þa, Hvad er þier?

17. Enn hun sagde til hans, Minn Herra, Pu hefur svared þinne þionustu Kvinnu vid DROTTinn þinn Gud. Pinn Son Salomon skal vera Kongur epter mig, og sitia a mijnum Stool.

18. Enn sioa nu, Adonia er ordenn Kongur, enn þu, Minn Herra Kongur, veitst þar ecke þar af.

19. Hann hefur offrad Uxum og Alefie, og Fiølda Sauda, og baud þar til øllum Kongsins Sonum, so og AbJathar Kiennemanne,

manne, og Joab Hershofdingia, enn ecke hefur hann boded þijnum Pienara Salomon.

20. Enn þu ert Minn Herra Kongur, alls Israels Augu horfa uppa þig, ad þu undervijsar þeim, hvor þar skule sitia a mijns Herra Kongsins Stole, epter hann.

21. Annars, þa minn Herra Kongur er sofnadur med sijnum Fedrum, þa mun eg og minn Son Salomon Sek hallden.

22. A medann hun var enn nu ad tala vid Kongenn þa kom Nathan Spaamadur.

23. Og þeir sogdu Kongenum til, Sioa, þar er Nathan Spaamadur. Og sem hann kom jnn fyrer Kongenn tilbad hann Kongenn framm a sitt Andlit til Jardar,

24. Og sagde, Minn Herra Kongur, Hefur þu so sagt, Adonia skal vera Kongur epter mig, og sitia a mijnum Stool?

25. Þvi hann hefur fared ofann j Dag, og offrad Uxum og ale Fie, og fiolda Sauda, og hann baud ollum Kongsins Sonum og Hofudsmonnum, þar med AbJathar Kiennemanne. Og Sioa! þeir eta og drecka med honum, og seigia, Lucku soae Adonia Kongur!

27. Enn eige baud hann mier þijnum Pienara, og eige Zadok Kiennemanne, eda Benaia, Syne Jojada, og ecke þijnum Pienara Salomone.

27. Er þad bifalad af mijnum Herra Kongenum, og þu lietst þinn Pienara þad ecke vita, hvor ed sitia skal yfer Stole mijns Herra Kongsins epter hann?

28. David Kongur svarade, og sagde, Kalled fyrer mig BerSabee hingad. Og hun kom jnn fyrer Kongenn. Og sem hun stod fyrer Kongenum.

29. Þa soor Kongurenn, og sagde, So Sannarlega sem DROTTinn lifer, soa sem mijna Ønd hefur frelsad vor ollum Naudum:

30. Eg vil giora j Dag, so sem eg hefe svared þier vid DROTTinn Gud Israels, og sagt, ad Salomon þinn Son skal vera Kongur epter mig, og hann skal sitia j mijnum (Haasætis) Stole fyrer mig.

31. Þa hneigde BerSabee med sinne Asionu til Jardar, tilbad Kongenn, og sagde, Minn Herra David Kongur soae Lucku æfinnlega!

32. Sijdann sagde David Kongur, Kalled til mijn Zadok Kiennemann, og Nathan Spaamann, og Benaja, Son Jojada. Enn sem þeir komu jnn fyrer Kongenn,

33. Þa sagde Kongurenn til þeirra, Taked med ydur ydars Herra Pienara, og seted minn Son Salomon a minn Mul, og færed hann ofann til Gihon.

34. Og Zadok Kiennemadur, og Nathan Prophete skulu þar smyria hann til Kongs yfer Israel. Og blaased j Basunur, og seiged, Lucku soae Salomon Kongur!

35. Og fared upp hingad epter honum, so skal hann koma og setiast j minn Stool, og vera Kongur fyrer mig, og eg vil bioda honum, ad hann skule vera Hofdinge yfer Israel og Juda.

36. Þa svarade Benaja, Sonur Jojada, Kongenum, og sagde, Amen! DROttinn mijns Herra Kongsins Gud, seige so.

37. So sem DROTTinn hefur vered med mijnum Herra Kongenum, so sie hann og med Salomone, ad hans Stooll verde stærre enn mijns Herra Davids Kongs Stooll.

38. Epter þetta geingu þeir ofann Zadok Kiennemadur, og Nathan Spaamadur, og Benaja, Son Jojada, og Crethi, og Plethi, og settu Salomon a Mul Davids Kongs, og færdu hann til Gihon.

39. Og Zadok Kiennemadur tok Vidsmiors Horned af Tialldbudenne, og smurde Salomon. Og þeir bliesu j Basunur, og allt Folked sagde, Lucku soae Salomon Kongur!

40. Og allt Folked foor upp epter honum, og Folked blies j Pijpur, og var fagnande, so ad Jordenn skalf af þeirra Haareiste.

41. Enn Adonia, og aller þeir sem hann hafde jnnboded, og hioa honum voru, heyrdu þad, og þeir hofdu þa loked Maaltijd. Og þa Joab heyrde Basununnar Hliod, þa sagde

de hann, Hvoriu giegner þetta Kall og Hvareyste j Borgenne?

42. Enn sem hann var enn nu þetta ad tala, Sioa, þa kom Jonathan, Son AbJathar Kiennemanns. Og Adonia sagde, Kom jnn hingad, þviad þu ert eirn godur Madur, og munt bera god Tijdende.

43. Jonathan svarade, og sagde til Adonia, Joa, vor Herra David Kongur hefur giort Salomon ad Konge.

44. Og hefur sendt Zadok Kiennemann, og Nathan Spaamann, Benaia, Son Jojada, og Crethi og Plethi, med honum, og þeir settu hann uppa Kongsins Mwl.

45. Enn Zadok Kiennemadur, og Nathan Spaamadur, smurde hann til Kongs j Gihon, og þeir foru þadann, upp hingad med Glede, so ad þar bulde j Stadnum, og þad er nu sa Hoafade sem þier hafed heyrt.

46. Hier med situr Salomon a þeim Konunglega Stool.

47. Og Kongsins Þienarar eru jnngeingner ad blessa vorum Herra David Konge, og hafa sagt, Þinn GUD giore Salomone eitt betra Nafn, helldur enn ad þitt Nafn er, og giore hans Velldis Stool stærra, helldur enn þinn Stooll er. Og Kongurenn badst fyrer j Sænginne.

48. Og Kongurenn sagde so, Lofadur sie DRottinn GUD Jsraels, hvor ed liet j Dag eirn sitia a mijnum Stole, so ad mijn Augu hafa þad sied,

49. Þa skielfdust og stodu upp aller þeir sem voru jnnbodner hioa Adonia, og geingu af Stad, hver sinn Veg.

50. Enn Adonia vard miog hræddur fyrer Salomone, stood upp, og gieck j burt, og hiellt um Hornenn a Alltarenu.

51. Og þad var sagt Salomone, Sioa, Adonia ottast Salomon Kong, og sioa, hann helldur um Alltaresins Horn, og seiger, Salomon Kongur sverie mier j Dag, ad hann skule ecke sloa sinn Þienara jhel med Sverde.

52. Salomon sagde, Vilie hann vera fromur, þa skal þar ecke falla eitt Hoar af honum a Jordena, enn finnest nockud vondt med honum, þa skal hann deya.

53. Sijdann sende Salomon Kongur þangad, og liet leida hann ofann fra Alltarenu. Og sem hann kom, þa tilbad hann Salomon Kong. Enn Salomon sagde til hans, Far heim j þitt Hws.

## II. Capitule.

Salomon (I) epter sinn Fodur andadann (II) helldur Rett og Dom i Jsrael.

I. Nu sem ad noalgadest Andloats Tijme Davids, þa baud hann Syne sijnum Salomon, og sagde,

2. Eg geing burt Veg allrar Verralldar. Tak þu Stirk, og vert eirn Madur,

3. Og vakta þad sem þinn GUD hefur bifalad þier, ad þu gauger a hans Vegum, og hallder hans Skickaner, Bodord, og Riettinde, og Vitnisburde, so sem skrifad stendur j Moses Logmoale, so þu meiger vera Forsioall j ollu þvi sem þu giorer, og hvort sem þu snyr þier.

4. Uppa þad, ad DROTTinn stadfeste sitt Ord, sem hann talad hefur til mijn, og sagt, Ef ad þijn Born vardveita sijna Vegu, so ad þeir ganga trwlega fyrer mier, og af ollu Hiarta, og af allre Ond, þa skal þar alldrei bresta Mann af þier, yfer Jsraels Stool.

5. Og þu veitst vel hvad Joab, son ZeruJa, giorde mier, hvad hann giorde þeim tveimur Hershofdingium j Jsrael, Abner, syne Ner, og Amasa, syne Jether, hvoria hann drap og wthellte Strijds Bloode j Fride, og liet Striids Blood koma a sitt Bellte, sem var um hans Lendar, og a hans Skoo, sem ad voru a hans Footum.

6. Gior þu epter þinne Vitsku, so ad þu leider ecke hans groa hoar med Fride nidur j Grofina.

7. Þu skallt veita Bornum Barsillai Gileaditer Miskunseme, so ad þeir ete vid þitt Bord,

Bord, þvi so hielldu þeir sier til mijn þa eg
flyda fyrer Absalone ijnum Brodur.
8. Og Sia, þu hefur hioa þier Simei, son
Gera, sonar Jemini af Baburim, hvor ed
skammarlega bolvade mier a þeim tijma, þa
eg gieck til Mahanaim. Enn hann kom j mote
mier hioa Jordan. Pa soor eg honum vid
DROttinn, og sagde, Eige vil eg sloa þig
j Hel med Sverde
9. Enn þu skallt ecke loata hann vera
saklausann, þviad þu ert eirn vijs Madur,
og veitst vel hvad þu skallt giora honum, ad
þu leider hans groa Hoar med Bloode nidur
j Grøfena.
10. So * sofnade David med sijnum For-
fedrum, og var Jardadur j Davids Borg.
* Post: Giorn: 2, 29. cap. 13, 36.
11. Enn sa Tijme, sem David var Kon-
gur yfer Jsrael, eru Fiorutijge Aar. Hann
var Kongur j Hebron Sio Aar, og Priu og
Priatijge Aar j Jerusalem.
II. 12. Og Salomon sat a Stoole sijns Fo-
durs Davids og hans Kongsrijke vard miøg
stødugt.
13 Enn Adonia, son Hagith, kom jnn
fyrer BerSabee, Modur Salomonis. Og
hun sagde, Kiemur þu med Fride? Hann
sagde, Joa.
14. Og hann sagde, Eg hefe ad tala vid
þig, Hun sagde, Seig framm.
15. Hann svarade, Þu veitst vel, ad
Kongsrijked var mitt, og allur Jsrael hafde
snwoest til mijn, ad eg skyllde Kongur vera.
Enn nu er Kongsrijked umvendad, og er orded
mijns Broodurs, af DROttne er þad hans
orded.
16. Nu bid eg eirnrar Bonar af þier, ad
þu vilier ecke afvirda mitt Andlit. Hun sag-
de til hans, Seig framm.
17. Hann svarade, Tala vid Konginn
Salomon (þvi hann mun ecke ovirda þitt
Andlit) ad hann vilie giefa mier Abisag af
Sunem til Eigennkvinnu.
18. BerSabee svarade, Nu vel, eg vil
tala vid Kongenn þinna vegna.
19. Og BerSabee kom jnn fyrer Sa-
lomon Kong, ad tala vid hann vegna Adonia.
Og Kongurenn stood upp, og gieck j moote
henne, og tilbad hana, og setiest j sinn Stool,
þar var og settur eirn Stooll handa Kongsins
Modur, ad hun sette sig til hans Hægre
Handar.
20. Og hun sagde, Eirnrar lijtellrar Bo-
nar bid eg þig, ad þu vilier ecke ovirda mitt
Andlit, Kongurenn sagde til hennar, Bid
Modur mijn, eg vil ei afvirda þitt Andlit.
21. Hun sagde, Loat Abisag af Sunem
giefast þijnum Brodur Adonia til Eigenn-
kvinnu.
22. Pa svarade Salomon Kongur, og
sagde til sinnar Modur, Hvar fyrer bidur
þu um Abisag af Sunem handa Adonia?
Bid þu honum og so Kongsrijkisins, þvi
hann er minn Broder, elldre enn eg, og hann
hefur med sier AbJathar Kiennemann, og
Joab, son ZeruJa.
23. Og Salomon Kongur soor vid
DROTTinn, og sagde, Gud giore mier
þad og þad, Adonia skal hafa talad þetta j
giegn sijnu Lijfe.
24. Og nu, So sannarlega sem DRottinn
lifer, sa sem mig hefur stadfest, og loated sitia
a Stoole mijns Fodurs Davids, og giorde
mier eitt Hwss, sem hann hafde sagt, Adonia
skal deya þennann Dag.
25. Og Salomon Kongur sende ofann
Benaja, son Jojada, hann sloo hann so ad
hann liet lijfed.
26. Og Kongurenn sagde til AbJathar
Kiennemanns, Far burt til þijns Akurs j
Anathot, þviad þu ert Daudans Madur,
Enn eg vil ecke sloa þig j hel a þessum Deige,
þvi þu barst Herrans DROTTins Ørk fy-
rer David mijnum Fodur, og þu leidst Mot-
gang, þa minn Fader leid Motgang.
27. So vtrak Salomon AbJathar, ad
hann moatte ecke vera Guds Kiennemann,
so ad uppfylldest Ord DROTTins, sem
hann hafde talad yfer Hwss Eli, j Silo.

28. Og

28. Og þetta Rikte kom fyrer Joab, þvíad Joab hiellt med Adonia, enn þo ecke med Absalon. Pa flyde Joab j Tialldbwd DROttins, og hiellt um Alltaris Hornenn.

29. Og þad var kunngiort Salomone Kónge, ad Joab være flwenn til Tialldbwdar DROTTins, og siaa, hann stendur vid Alltarid. Pa sende Salomon Benaja, son Jojada þangad, og sagde, Far og slaa þu hann.

30. Enn sem Benaja kom til Tialldbwdar DROTTins, þa sagde hann til hans, So seiger Kongurenn, Far wt hiedann. Hann sagde, Nei, hier vil eg deya. Og Benaja kunngiorde þetta Kongenum aptur, og sagde, So hefur Joab talad, og þvilijku svarade hann mier.

31. Pa sagde Kongurenn til hans, Gior þu so sem hann sagde, og slaa þu hann, og jarda hann, so þu j burt taker þad Blood sem Joab hefur wthellt, fyrer Sakleyse, fra mier og mijnu Fødurs Hwse.

32. Og DROTTinn mun bitala honum hans Blood yfer hans Høfud, ad hann sloo þa tvo Menn j Hel, þeir sem voru Riettlaatare og betre enn hann, og drap þa med Sverde, so ad minn Fader David visse þar ecke af, sem var Abner, son Ner, Hershøfdinge yfer Jsrael, og Amasa, son Jethar, Hershøfdinge yfer Juda,

33. Ad þeirra Blood verde bitalad yfer Joabs Høfud, og hans Sædis æfenliga. Enn David og hans Sæde, hans Hws, og hans Stooll hafe Frid af DROTTni æfinlega.

34. Og Benaja, son Jojada gieck upp, og sloo hann, og drap hann, Og hann var Jardadur j sijnu Hwse j Eydemørku.

35. Og Kongurenn sette Benaja, son Jojada, til Hershøfdingia yfer Herenn j hans stad, so og sette Kongurenn Zadok Prest j stadenn AbJathar.

36. Og Kongurenn sende bod, og liet kalla Simei, og sagde til hans, Bigg þier upp eitt Hws j Jerusalem, og bw þar, og far ecke wt þadann neinstadar, hvorke hingad nie þangad.

37. Enn a hvorium Deige sem þu geingur wt, og yfer um Lækenn Kedron, þa skallt þu vijst vita, ad þu skallt deya, þitt Blood sie yfer þijnu Høfde.

38. Simei sagde til Kongsins, Petta er good meining, so sem minn Herra Kongurenn hefur sagt, so skal þinn Pienare giora, So bioo Simei j Jerusalem langa tijma.

39. Epter þriu Aar vard sa Atburdur, ad tveir af Prælum Simei hlupu til Achis, sonar Maecha, hvor ed var Kongur j Gath, og þad var Simei undervijsad, Sioa, þijner Prælar eru j Gath.

40. So took Simei sig upp, og sodlade Asna sinn, og foor til Achis j Gath ad leita Præla sinna. Enn sem hann kom þangad, þa flutte hann Præla sijna fra Gath.

41. Petta frietter Salomon, ad Simei var farenn fra Jerusalem til Gath, og var komenn aptur.

42. Pa sende Kongurinn af stad, og liet kalla Simei, og sagde til hans, Hefe eg ecke svared þier vid DROttinn, og vitnad fyrer þier, og sagt, A hvorium Deige sem þu fer wt, og geingur hingad, edur þangad, þa maattu vita, ad þu skallt Dauda deya? Enn þu svarader mier, Eg hefe heyrt eina gooda Meining.

43. Pvi hefur þu þa ecke hallded þig epter DROTTins Eide, og Bodorde, þvi sem eg baud þier?

44. Og Kongurenn sagde til Simei, Pu veitst alla þa Jllsku, sem þijnu sialfs Hiarta er vitanleg, hvad þu giorder mijnum Fødur David, DROTTinn hefur bitalad þijna Jllsku yfer þitt Høfud.

45. Og Kong Salomon er blessadur, og Davids Stooll mun stadfestast fyrer Drottni æfenlega.

46 Og Kongurenn baud Benaja, syne Jojada, Hann gieck wt og sloo hann j Hel. Og Kongs Rijked stadfestest fyrer Hønd Salomonis.

# III. Capitule.

(I) Um Gipting; (II) Bæn; og (III) Dom Salomons.

I. Og Salomon Kongur mægdest vid Pharao Kong j Egyptalande, so ad hann fieck Dotter Pharaonis, og flutte hana j Davids Borg, þar til hann hafde fullkomnad ad biggia sitt Hws, og DROTTins Hws, og so Mwrveggena allt um kring Jerusalem.

II. 2. Enn Folked offrade enn þa a Hædunum, þvi þa var enn ecke biggt neitt Hws Nafne DROTTins allt þangad til.

3. Enn Salomon elskade DROTTinn, og gieck epter Sidum sijns Fodurs Davids, Fyrer utann þad hann færde Foórner og Reykelse a Hædonum.

4. Og Kongurenn gieck burt til Gibeon, ad foornfæra þar, þviad þad var ein af þeim vegleguftu Hædum, og Salomon offrade Þusund Brennefoornum yfer þvi sama Alltare.

5. Og DROTTinn birtest Salomone j Gibeon, um Noatt, j Draume, og Gud sagde, Bid þu þess sem Eg giefe þier.

6. Salomon sagde, Þu veitter mijnum Fodur, þijnum Þienara David, mikla Miskun, lijka sem hann gieck fyrer þier j Sannleika og Riettlæte, og med einu riettu Hiarta fyrer þier, Og þu hefur hallded honum þa miklu Miskun, og giefed honum eirn Son, sem situr a hans Stoole, so sem nu giefur Raun Vitne.

7. Nu DROttinn, Minn Gud! þu hefur sett þinn Þienara til Kongs j mijns Fodurs Davids stad. So er eg nu Ynglingur, og veit hvorke minn wtgang nie jnngang.

8. Enn þinn Þienare er a medal þessa Folks, sem þu hefur wtvaled, hvort ad so margt er, ad eingenn kann ad telia, edur upp skrifa þad fyrer Fiölda saker.

9. Þvi gief þijnum Þienara eitt (a) Hlydugt Hiarta, so ad hann meige dæma þitt Folk, og skilia hvad Gott sie og Illt, þvi Hvor kann ad dæma þetta þitt Megtuga Folk?

(a) Skilnings.

10. Þetta þocknadest DROTTne vel, ad Salomon bad um slijkt.

11. Og GUD sagde til hans, Sokum þess ad þu badst um þvilijkt, enn beidder ecke um langa Lijfdaga, eda um Rijkedæme, eda um Sæaler þinna Ovina, helldur um Speke, ad heyra Doma.

12. Sioa, so hefe Eg giort epter þijnum Ordum. Sioa, Eg hefe giefed þier eitt Vijst og Skilnings fullt Hiarta, so ad þinn Lijke hefur ecke vered fyrer þig, og eige helldur skal koma epter þig.

13. Hier um framm hefe Eg giefed þier þad sem þu badst ecke um, sem er Audæfe og Dyrd, so ad eingenn medal Konganna er þinn Lijke j þinne Tijd.

14. Og ef þu geingur a mijnum Vegum, og helldur mijna Setninga, og Bodord, so sem þinn Fader David hefur geinged, þa vil Eg giefa þier langa Lijfdaga.

15. Enn sem Salomon vaknade, Sioa, þa var þad eirn Draumur. Og hann kom til Jerusalem, og gieck fyrer Sattmaals Ork DROTTins, og offrade Brennefornum, og Þacklætis Fornum, og giörde öllum sijnum Þienorum eina mikla Veitslu.

III. 16. A þeim Tijma komu Tvær Lausakonur fyrer Kongenn, og stoodu framme fyrer honum.

17. Og önnur Kvinnann sagde, Auvi Minn Herra! eg og þesse Kvinna bluggum samann j einu Hwse, og eg vard liettare þar j Hwsenu hia henne.

18. Enn Þremur Dogum þar epter, þa eg hafde fædt, fædde hun og so. Og vid vorum bœadar hvor hia annare, so ad þar var eingenn annar j Hwsenu hia ockur utann vid bœadar.

19. Og þessarar Kvinnu Son deyde a Noattar þele, þvi hun hafde þreyngt ad honum j Svefne.

20. Og

20. Og hun stood upp um Nottena, og took minn Son fra minne Siidu, þa þijn Þienustukvinna svaf, og lagde hann sier j Fadng, enn sinn hinn dauda Son lagde hun mier a Arm.

21. Enn þa eg stood upp um Morgunenn, ad giefa mijnum Syne ad siuga, Sioa, þa var hann daudur. Enn eg hugde vandlega ad um Morguninn, og Sioa, þa var þetta ecke minn Sonur sem eg hafde fædt.

22. Hin Onnur Kvinnann svarade, Þad er eige so, Minn Sonur lifer, enn þinn Sonur er daudur. Hin sagde, Þad er ecke so, þinn Sonur er daudur, enn minn Sonur lifer. Og þær toludu a þennann Hatt fyrer Kongenum.

23. Og Kongurenn sagde, Þesse seiger, Minn Son lifer, enn þinn Son er daudur. Su onnur seiger, Ecke so, þinn Sonur er daudur, enn minn Sonur lifer.

24. Þa sagde Kongurenn, Færed mier eitt Sverd. Og sem Sverded var borid fyrer Kongenn,

25. Þa sagde Kongurenn, Skipted þvi Lifanda Barne j Tvo Hlute, og fæed Helming hvorre þeirra.

26. Þa sagde Kvinnann til Kongsins hvors var Son ad lifde (þviad hennar Modurlegt Hiarta brann yfer hennar Syne) Auvi, Minn Herra, gief þu henne þad lifanda Barned, og dreped þad ecke. Enn hin onnur sagde, Vere þad hvorke þitt nie mitt, lated skipta þvi j sundur.

27. Þa svarade Kongurenn, og sagde, Giefed þessare Barned lifanda, og dreped þad ecke, þviad hun er Moder ad þvi.

28. Og allur Israel heyrde þennann Dom sem Kongurenn hafde dæmt. Og þeir Ottudust Kongenn, þvi þeir sou, ad Guds Speke var med honum, til ad hallda Dom.

# IV. Capitule.

(I) Hofdingiar Salomonis; (II) hans Tign, og (III) Vijsdomur.

I. So var nu Salomon Kongur yfer ollum Israel.

2. Og þesser voru hans Hofdingiar, AsarJa, Sonur Zadoks Kiennemanns.

3. Elihoreph og AhJa, Syner Sisa, voru Skrifarar. Josaphat, Son Ahilud, var Cantzler.

4. Benaia, Son Joiada, var Hershofdingie. Zadok og AbJathar voru Kiennemenn.

5. AsarJa, Son Nathan, var yfer Embættis Monnonum. Sabud, Son Nathan Kiennemanns, var Vinur Kongsins.

6. Ahisar var Hofgards Meistare. Adoniram, Son Abda, var Rentu-Meistare.

7. Og Salomon sette Tolf Liensmenn yfer allt Israels Folk, þeir ed forsorgudu Kongenn og hans Hws, eirn Manadar Tijma j arenu hafde hvor þeirra ad forsorga.

8. Og þesse voru þeirra Nofn, Sonur Hur a Ephraims Fialle.

9. Sonur Dekers, j Makas, og j Saalbim, og j BethSemes, og j Elon, og j BethHanan.

10. Sonur Hesed j Aruboth, og hafde þar til med Socho, og allt Hepher Land.

11. Sonur AbiNadab (hafde) allt Herradæmed j Dor, og hann atte Taphath Dottur Salomons.

12. Baena Son Ahilud, j Taenach, og j Megiddo, og yfer allt Bethsean, sem liggur hia Zartana under Jesreel, fra Bethsean, og allt til Mehola sliettu, allt til Jakteam hinumegenn.

13. Son Gebers i Ramoth, j Gilead, og hafde Þorpenn Jair, Sonar Manasse, j Gilead, og hafde Landareign Argob, sem liggur j Basan, Sextijge storar mwradar Borger, og med Kopar Staungum.

14. Ahinadab, Son Iddo, j Mahanaim.

15. Ahimaas j Nephthali, og hann tok og Salomons Dottur Basmath til Eigennkvinnu.

16. Baena, Son Husai, j Asser, og j Aloth.

17. Josuphat, Son Paruah, j Isaschar.
18. Simei, Son Ela, j BenJamin.
19. Geber, Son Uri, j Gileads Lande, j Sihons Ammorita Kongs Lande, og Ogs, Kongsins af Basan, sem var eirn Hofdinge j sama Lande.

II. 20. Enn Juda og Israel voru marger sem Siooar sandur, og þeir ooatu og drucku, og voru glader.

21. So var Salomon eirn Herra yfer öllum Kongarijkium, fra Vatnenu j Lande Philistinorum, og til Egypti Landamerkia, sem færdu honum Skatt, og þionudu honum alla hans Lijfdaga.

22. Og Salomon hafde daglega Dags til sijns Fædis Priatijge Mæla Hveitemiöls, og Sextijge Mæla annars Miöls.

23. Og Tiju alda Uxa, og Tuttugu Uxa haggeingna, og Hundrad Saude, umframm Hiortu, og Hreindyr, og Steingeitur, og aled Fie.

24. Þviad hann stiornade j öllu Landenu a þessa Sijdu Vatnsins, fra Tiphsah, og jnn til Gasa, yfer öllum Kongum þeim meigenn Vatnsins. Og hann hafde Frid af öllum sijnum undergiefnum umhverfis.

25. So ad Juda og Israel biuggu fyrer utann Ugg, hvor under sijnu Vijnviðe og Fijkiu Trie, fra Dan allt til BerSeba, so leinge sem Salomon hann lifde.

26. Og Salomon hafde Fiorutijge Þusund Vagn-Hesta, og Tolf Þusund rijdande Menn.

27. Og Embættis Mennerner forsorgudu Kongenn Salomon, og allt þad sem til hans Bords heyrde, hvor a sijnum Mooanude, og lietu eckert vanta.

28. Þeir fluttu og Bigg og Hey fyrer Hestana, og Veghlauparana, j þann Stad sem hann var, hvör epter þvi sem honum var skipad.

III. 29. Og GUD gaf Salomone miög mikenn Vijsdom og Speke, og Odeigt Hiarta, sem Sandur er liggur á Siooar Strondu.

30. Sa Salomonis Vijsdomur var stærre enn allra Barna j Austurálfunne, og allra Egyptskra Vijsdomur.

31. Og hann var spakare enn aller adrer Menn, og vijsare helldur enn þeir, Ethan Esrahiter, Heman, Chalchal og Darda, Machols Syner, og hann var Nafnfrægur medal allra Heidingia allt umkring.

32. Og hann talade Þriu Þusund Ords Kvidu, og hans Vijsur voru Þusund og Fimm,

33. Og hann talade um Trien, fra Cedrus j Libanon, jnn til Ysop sem vex wt Veggium. Hann talade og so um Fie og Fugla, um Skridkvikende, um Fiska.

34. Og þar komu Menn af öllum Þiodum ad heyra Salomonis Speke, fra öllum Kongum a Jordunne, sem ad heyrt höfdu af hans Speke.

## V. Capitule.

*Salomon fær Folk fra Konungenum i Tyrus, til ad starfa ad Hus-Smijde Drottens i Jerusalem.*

Og Hiram Kongur j Tyro sende sijna Þienara til Salomonis. Þvi hann hafde spurt, ad þeir höfdu smurt hann til Kongs j hans Fodurs Stad. Þvi Hiram elskade David alla hans Lijfdaga.

2. Og Salomon sende til Hiram, og liet seigia honum.

3. Þu veitst, ad minn Fader David mooatte ecke biggia Hws Nafne DROTTins sijns Guds, sokum Ofridar, sem var öllumeigenn j kringum hann, þar til ad DROTTinn gaf þa alla under Soola hans Fota.

4. Enn nu hefur DROTTinn Minn GUD giefed mier Hvijld, öllumeigenn j kring, so ad hier er eingenn Motstandare, og ei helldur vond Hindran.

5. Sioo, so hef eg nu hugsad ad biggia Nafne DROTTins Mijns Guds eitt Hws, so sem DROTTinn hefur talad til mijns Fodurs Davids, og sagt, Þinn Son, hvorn

Eg vil setia j þinn Stad, j þitt Sæte, hann skal biggia mijnu Nafne eitt Hws.

6. Þar fyrer biod þu nu, ad Menn høggve mier Cedrus Vide af Libanon, og ad þijner Þienarar sieu med mijnum Þienorum. Og eg vil giallda þier Laun þinna Þienara, so sem þu œskvedur. Þviad þu veitst, ad hier er eingenn hia oss, sem so kann ad høggva Trie, sem þeir Zidoniar.

7. Enn sem Hiram heyrde Salomonis Ord, þa vard hann miøg gladur, og sagde, Lofadur sie DROTTinn a þessum Deige, hvor ed gaf David eirn Wijsann Son yfer þad mikla Folk.

8. Og Hiram sende til Salomons, og liet seigia honum, Heyrda eg þad sem þu sender til mijn, eg vil giøra epter allre þinne Gyrnd, um þa Cedrus Vidu og Grenetrie.

9. Mijner Þienarar skulu flytia þau nidur af Libanon til Siooarins, og eg vil lata leggia þau a Flota a Sioenn, allt til þess Stadar sem þu lætur seigia mier, og eg skal lata leysa Viduna þar, enn þu skallt lata sækia þa. Enn þu skallt og giøra minn Vilia, og giefa Vister mijnum Þienørum.

10. So gaf Hiram Salomone Cedrus Vidu, og Grenetrie, epter øllum hans Vilia.

11. Og Salomon gaf Hiram Tuttugu Þusund Mæler Hveitis, handa hans Þienørum, ad eta, og Tuttugu Mæler med skeirt Oleum. So miked gaf Salomon Hiram hvert Aar.

12. Og DROTTinn gaf Salomone Wijsdoom, so sem hann hiet honum. Og þar var Fridur millum Hiram og Salomons, og þeir bundu Saattmaal med sier baader.

13. Og Salomon lagde Manntal a allann Israel, Og þad Manntal var þriatijge Þusunder Manna.

14. Og hann sende þa til Libanon, Tiju Þusund hvørn Maanud, so þeir voru eirn Maanud a Libanon, enn Tvo Manude heima. Og Adoniram var yfer þvi Manntale.

15. Og Salomon hafde Siøtijger Þusunder þeirra sem baaru Byrder, og aattatijger Þusunder sem ad voru ad Vidartelgingu a Fiallenu.

16. Umframm Salomons yppurstu Verkstiora, hvorier ad setter voru yfer Arfided, þeir voru ad tølu þriar Þusunder, og þriu Hundrud, hvorier stiornudu yfer Folkenu sem Erfided vann.

17. Og Kongurenn baud, ad þeir skylldu upp briota stoora og kostulega Steina, sem voru uthøggner Steinar til Hwssens Grundvallar.

18. Og Salomonis Biggingarmenn, og Hirams Biggingarmenn, og Giblim, þeir hiuggu tot og biuggu til Videnn og Steinana, ad smijda Hwsed af.

## VI. Capitule.

*Nær Salomons Mustere var biggt, og hversu lenge vered var ad biggia þad.*

A þvi aattatijgasta Aare hins Fimmta Hundrads, fra þvi ad Israels Born voru utleidd af Egyptalande, a þvi Fiorda Aare Rijkes Salomons Kongs yfer Israel, j þeim Maanade Sif, þad er sa annar Maanudur, þa var Hws DROttins uppbiggt *.

* Salomons Mustere var byggt epter Heimsins Skøpun 2923. Fyrer Christi Fæding 1027.

2. Enn þad Hws sem Salomon Kongur smijdade DROTTni var Sextijge aalna laangt, Tuttugu aalna breidt, og (a) Þriatiju aalna haatt.

(a) (Þriatijge aalna haatt) J annare Chroniku Bokenne, 3, 4 seiger Textenn, ad Hwsed hafe vered Hundrad og tuttugu aalna haatt, hvad ad sagt er um hæd alls Hussens, enn hier talar alleinasta um þa nedstu Stofu, hvør ed var þriatijge aalna haa.

3. Og hann biggde eitt Forbyrge framm af Musterenu, Tuttugu aalna langt, epter Hussens breidd, og Tiju aalna breidt, framm af Husenu.

4. Og hann giørde Glugga a Husenu, innann til vijda, og utan til miooa.

5. Og hann biggde eirn Umgang vid Vegg Hussens, allt um kring, so hann gieck bæde um

um kring Mustered og Koorenn, og giorde Vegge þar um kring utan til.

6. Þau nedstu gaung voru fimm oalna vijd, og þau j midid sex oalna vijd, enn þau þridiu sio oalna vijd, þvi hann lagde Bioalka utan um kring Hused, so ad þeir komu ecke vid Vegg Hussens.

7. Og þa Hused var sett, þa voru Steinarner med ollu oadur tilreidder, so ad þar heyrdest hvorke Hamar, nie Oxe, edur nockur Smijdatool af Joarne, j Biggingunne.

8. Og þar voru einar Dyr hægrameigenn midt a Husenu, og um Vindelstein troppur var ad ganga j Midgangenn, og fra Midgangenum upp j þann þridia.

9. Og so biggde hann Hused, og fullkomnade þad, og hann þiliade Hused med Cedrustrie, bæde ofann til og um Veggena.

10. Hann biggde og so ein Gaung, ofann a ollu Husenu, allt um kring, fimm oalna Hoa. Og hann þakte Hused med Cedrus Vidum.

11. Og Ord DROTTins skiede til Salomon, og sagde,

12. Þetta er Hused þad sem þu smijdar. Ef þu geingur j mijnum Bodum, og giorer epter mijnum Riettindum, og helldur oll mijn Bodord, ad ganga j þeim, þa vil Eg stadfesta mitt Ord vid þig, so sem Eg sagde til þijns Fodurs Davids.

13. Og Eg vil bwa a millum Jsraels Barne, og Eg vil ecke yfergiefa mitt Folk Jsrael.

14. So biggde Salomon Hused, og fullkomnade þad.

15. Og hann smijdade Veggena a Husenu jnnann til a hlidunum med Cedrus Fiolum, nedan fra Golfenu, og upp ad Þakenu, og þiliade þad jnnann til med Trie, og lagde Goolfed j Husenu med Grene Fialer.

16. Hann biggde og so a bak vid Hused eirn Vegg af Cedrus Trie, Tuttugu oalna langann, upp froa Goolfenu, og under Þaked, og biggde Koorenn þar fyrer jnnann, og þad Allra-Helgasta.

17. Enn Musteresins Hws (fyrer framann Kooreun) var fiorutijge oalna langt.

18. Enn allt Hused jnnann til var ecke nema Cedrus Vidur, med rendum Knoppum, og utskornum Bloomstrum, so ad hvorge moatte a nockurn Stein sioa.

19. Enn Kooreun tilreidde hann jnnann til j Husenu, so ad þangad skyllde setiast Soattmoals Ork DROTTins.

20. Og fyrer Koornum, sem var tuttugu oalna langur, og tuttugu oalna breidur, og tuttugu oalna Hoar, og sleigenn med kloara Gull, þiliade hann Alltarid med Cedrus Trie.

21. Og Salomon þakte Hused jnnann allt med kloaru Gulle, og hann giorde Gullsteingur fyrer Koorenn, sem hann hafde klædt med Gull.

22. So ad allt Hused var olldungis med Gull þaked, þar med bioo hann allt Alltared med Gull, utan fyrer Koornum.

23. Hann giorde og j Koornum tvo Cherubim af Oliuvidar Trioam, tiju Alna ad Hæd.

24. Hvor Cherubs Vængur var Fimm Alna langur, so ad þad var tiju Alner, fra þeim eina hans Vængs enda, og til þess annars Vængs enda.

25. So hafde og so sa annar Cherub tiju Alner, og bvader Cherubim hofdu eins moata, og eins rwm.

26. So ad hvor Cherub var tiju oalna hoar.

27. Og hann sette þessa Cherubim jnnann til j Husenu, og Cherubim wtbreiddu sijna Vænge, so ad Vængur þess eina snart þann eina Vegg, og Vængur þess annars Cherubs snart og þann annann Vegg, Enn j midin Husenu snart hvor Vængur annann.

28. Og hann bioo þessa Cherubim med Gulle.

29. Hann liet og utsnicka alla Vegge Hussens allt um kring, med utskornum Cherubim, Poalmvidum, og Bloomstrum, jnnann til og utann til.

30. Og hann yferklædde Golfed Hussens med Gulle, jnnann og utann.

31. Og hann giorde tvær Hurder a Inngangenum til Koorsins af Olin Trie, med Fimmstrendum Dyrastoolpum.

32. Og hann liet utskera þar a, med Snickara Verke, Cherubim, Palmvid, og Blom, og yferklædde þær med Gulle.

33. Hann giorde og j Mustteresins Inngange ferstrenda Dyrastoolpa af Vidsmiørs Vidar Trie.

34. Og tvær Hurder af Grene-trie, og hvor Hurd hafde tvo Vænge, hangande til samans a sijnum Hiorum.

35. Og hann liet utskiera þar a Cherubim, Palmvid, og Bloomstur, og bio þær med Gull, riett eins sem þad var bifalad.

36. Hann biggde og so eirn Gard jnnann til med þremur Radum uthoggvenna Steina, og eitt Laged med heflad Cedrus Trie.

37. A þvi Fiorda Aare, j þeim Mánade Sif, var Grundvollurenn Hussens DRottins lagdur.

38. Og a þvi enu Ellefta Aare, j þeim Mánude Bul (þad er sa áttunde Mánudur) var Hused algiort, so sem þad vera skyllde, so þeir voru ad smijda þad j sio Aar.

# VII. Capitule.

Nockud (I) um Salomons, og (II) DRottens Hus.

I. Enn Salomon uppbiggde sitt Hwss j þrettan Aar, ad hann fullkomnade þad med ollu.

2. Og hann biggde Hwss af Libanon Skooge, Hundrad Alna langt, fimmtijge Alna breidt, og þriatiju Alna hátt. A fioorum rodum Cedrus Stoolpa, og Cedrus Bita a Stoolponum.

3. Enn þad var ofann til þaked med Cedrus, yfer Bitunum, sem láu a somu Stoolpum, sem voru fimm og fiorutijger, jáa, fimmtan j hvorre Rod.

4. Og þar voru Gluggar þrijsetter, hvorier j moote odrum, þrijr j moote þremur.

5. Og þeir voru ferskeytter a hvorn veg.

6. Hann biggde og eitt Forbyrge med Stoolpum, fimmtije álna langt, og þriatijge álna breidt, Og enn eitt Forbyrge fyrer framann þetta, med Stoolpum, og þickvum Bitum.

7. Hann biggde og eirn Doomstools Sal, ad sitia Doom j, og þiliade bæde Golfenn med Cedrus Triaam.

8. Og so til sijns Hwss, j hvoriu hann bio, eitt annad Forbyrge, bak vid Salenn, smijdad so sem þad annad. Hann giorde og so eitt Hwss lijka sem Salenn, handa Pharaons Doottur, hvoria Salomon hafde teked sier til Eigennkvinnu.

9. Allt þetta var kostuleger Steinar, wthoggner epter Horn-Jaarne, med Sog skorner uppa allar sijdur, nedan fra Grundvelle, og upp under Þaked, þar til og sa Stoore Gardur utan til.

10. Enn Grundvollurenn var og so kostuleger og stoorer Steinar, tiju og átta Alna ad vexte.

11. Og þar uppa kostulega wthoggner Steinar, epter Hornjáarnenu, og Cedrus Vider.

12. Enn sa Stoore Gardur hafde allt um kring þriar Rader wthoggvenna Steina, og eina Rod af Cedrus Fialvidar þile, lijka so sa Gardur hiá DROTTins Hwse, jnnann til, og sa Salur hiá Husenu.

II. 13. Og Kong Salomon sende wt, og liet sækia Hiram af Tyro,

14. Hvor ed var sonur eirnrar Eckiu af Ætt Naphthali, og hans Fader hafde vered eirn Madur af Tyro, Hann var eirn Þiodhage a Kopar, fullur af Vijsdoome, Skilninge, og Kunnáttu, ad smijda allra handa Smijde af Málme. Og sem hañ kom til Salomons Kongs smijdade hann allar hans Smijdar.

15. Og hann giorde Tvo Kopar-stoolpa, átián Alna háfann hvorn fyrer sig, og eirn

Pradur Tolf Alna var mælerenn yfer um hvorn Stoolpa.

16. Og hann giørde tvo Knappa steypta af Kopar, ad setia þa ofann a Stoolpana, og hvør Knappur var fimm Alna hoar.

17. Og þar voru uppa hvørium Knappe, ofann a Stoolpønum, Siø fliettud Bønd, so sem Kediur.

18. Og hann giørde a hvørium Knappe, Tvær Rader med Granata Eple, riett um kring a einu Bande, sem Knappurenn var hulenn med.

19. Og Knapparner voru lijka sem Rosa fyrer Salnum, Fiogra alna storer.

20. Enn Granata Eplenn voru Tvo Hundrud j rødum, riett um kring, ofann og nedann til þess Bands, sem gieck um kring midia Knappana, a hvørium Knappe a bađum Stoolpønum.

21. Og hann reiste upp Stolpana fyrer Forbyrge Musterisins. Og þann sem hann sette a Hægre Sijdu kallade hann Jachin, enn þann sem hann sette a Vinstre Sijdu kallade hann Boas.

22. Og þad stood ofann a Stoolpønum lijka so sem Roser, so var þad Verk Stoolpanna fullkomnad.

23. Og hann giørde eitt steypt Haf, og þad var kringlott, Tiju Alna vijdt, fra ødrum Barme til annars, og Fimm Alna hoatt, og ein Snwra Priatiju Alna løng var Mælerinn allt um kring.

24. Og þar geingu Knappar under Barmonum kring um þad sama Haf, sem var Tiju alna vijdt, riett j kringum Hafed, og þesser Knappar voru steypter j Tvær Rader.

25. Og þad stod uppa Tolf Urum, þremur var snued jmot Nordre, þremur jmot Vestre, þremur jmot Sudre, og þremur jmot Austre. Og Hafed (stod) þar ofann a, og allur þeirra aptare Hlutur stod jnn.

26. Dicktenn a þvi var Pverhandar, enn Barmarner þar a voru sem Barmar a einum Bikar, lijka sem ein wtsprungenn Rosa, og þad tok Tvo Pusund (a) Bathos.

(a) (Bath) Er so sem Quartiel eirnrar Tunnu.

27. Hann giørde og so Tiju Koparstoola, hvørn Fiogra alna langann og breidann, og Priggia Alna Hoafann.

28. Og Stoolarner voru so giørder, ad þeir høfdu Flatvege a millum Listanna.

29. Og utan a Flatvegunum millum Listanna voru Leon, Uxar, og Cherubim, og Flatveigerner, sem Leonenn og Uxarner voru uppa, høfdu Lister ofann og nedann, og litla Fætur þar a.

30 Og hvør Stooll hafde Fiogur Koparhiol med Kopar Oxlum, og a þeim Fiorum Hornum voru steyptar Axler, hvør gagnvart annare, festar nedan under Kietelenn.

31. Enn Hoalsenn a midium Stoolnum var eirnrar Alnar hoar, og kringlottur, hoalfrar annarar alnar vijdur, og þar voru Doppur a Hoals Listonum, sem voru med Fiorum Hornum, enn ecke kringlottar.

32. Enn þau Fiogur Hiool stodu ad nedann, upp ad Sijdønum, og Hioola Asarner voru upp ad Stoolunum, hvørt Hiool var hoalfrar annarar Alnar hoatt.

33. Og Hioolenn voru lijka sem Vagna Hiool, og þeirra Hioolasar, Hiool Augad, Hioolrimarnar, og Hioolkanntarner, var allt steypt.

34. Og Fiorar þær Axler, a hvørs Stools Fiorum Hornum, voru og so a Stoolunum.

35. Og a Hoalsenum, ofann a Stoolunum, eirnrar hoalfrar Alnar Hoafum, riett um kring, voru Listur og Sijdur a Stoolunum,

36. Og hann liet wtgrafa þar sem sliett var, a þeim sømu Flatvegum og Listum, Cherubim, Leon, og Palmvid, hvørt hia ødru, riett um kring þar uppa.

37. Epter þessum Maata giørde hann þa Tiju steypta Stoola, og høfdu aller eirn Maata og Rwm.

38. Og hann giørde Tiju Kopar Katla, og þar geingu Fiorutiju Bath j eirn Kietel, og var Fiogra Alna stor, og þar var eirn Kietell a hvørium Stool.

39. Hann sette Fimm Stoola j þad Hægra

Horn

Horn j Hwsenu, og adra Fimm vid þad Vinstra Horn, enn Hafed sette hann framarverdt til Hægre Handar, jmot Sudre.

40. Og Hiram giorde og so Potta, Skufslur, Munnlaugar, og fullkomnade so allt Verkid, sem Salomon Kongur liet giora a DROTTINS Hwse.

41. Sem voru þeir Tveir Stoolpar, og þeir bollottu Knappar, ofann a þeim Tveimur Stoolpum, og þau Tvo fliettodu Bond, ad hylia þa Tvo bollottu Knappa a Stoolponum.

42. Og þau Fiogur Hundrud Granata Eple a þeim Tveimur fliettudum Bondum, Jtem Tvær Rader med Granata Eple a hvorium Streing, ad hylia þa Tvo bollottu Knappa a Stoolponum.

43. Og þa Tiju Stoola, og Tiju Katla þar ofann a.

44. Þar til Hafed, og Tolf Uxa under Hafenu.

45. Pottana, Skuflurnar, og Munnlaugarnar. Og oll þesse Kier, sem Hiram giorde Kong Salomone, til DROTTINS Hwss, þau voru af klaarum Kopar.

46. J Sliettlende hia Jordan liet Kongurenn steypa þau, i þickre Jordu, millum Suchot og Zarthan.

47. Og Salomon liet oll Kier vera ovegenn, sokum þess ofur mikla Kopars.

48. Og Salomon giorde og so oll Verkfære sem heyrdu til Hwse DROTTINS, sem var eitt Gull Alltare, eitt Gullbord, sem Skodunar Braudenn liggia uppa.

49. Fimm Liosastikur a Hægre Sijdu, og Fimm Liosastikur a þa Vinstre Sijdu, fyrer Koornum, af klaaru Gulle, med Gullblomstrum, Lompum, og Liosasoxum.

50. Þar til Skaaler, Diska, Munnlaugar, Skeider, og Ponnur, af klaaru Gulle. Eirnenn voru Hiarer Hurdarennar a Hwsenu innann til j þvi Allra-Helgasta, og a Hwssens Dyrum j Musterenu, af Gulle.

51. So var nu allur Giorningurenn fullkomnadur, sem Salomon Kongur giorde a DROTTINS Hwse. Og Salomon færde þar jnn þad sem hans Fader David hafde helgad, af Silfre, Gulle, og Kierum, og lagde þad j Fiehyrdslur DROTTins Hwss.

## VIII. Capitule.

(I) Salomons Mustere er vijgt med (II) Bæn, og (III) Offre.

I. Þa samankallade Salomon Kongur til sijn þa Ellstu af Jsrael, þa enu Ypurstu af ollum Ættkvijslum, og Fedranna Hofdingia a medal Jsraels Barna, til Jerusalem, ad uppfæra DROTTins Sattmaals Ork af Davids Stad, þad er Zion.

2. Og aller Jsraels Menn komu til samans, til Kongsins Salomon, j þeim Maanude Ethanim*, a Haatijdenne, þad er sa eñ Siounde Maanudur.

* Ethanim er October.

3. Enn sem aller þeir enu Ellstu af Jsrael komu, þa toku Prestarner Ork DROTTins upp,

4. Og fluttu hana upp, og þar til Samkundu Tialldbwdena, og oll Helgedomsins Verkfære, sem voru j Tialldbwdenne, þad giordu Prestarner og Levitarner.

5. Enn Kong Salomon, og allur Jsraels Sofnudur, sem samann var komenn til hans, þeir geingu med honum fyrer Orkenne, og offrudu Saudum og Nautum, so morgum, ad Mann kunne hvorke telia nie reikna þad.

6. So baaru Prestarner DROTTins Sattmaals Ork til sijns Stadar, j Koorenn, j Hwsenu, j þad Allra-Helgasta, under Vænge þeirra Cherubim.

7. Þvi Cherubim wtbreiddu Vængena yfer þann Stad sem Orkenn stood, og huldu Orkena, og hennar Steingur ofann til.

8. Og Steingurnar voru so langar, ad Mann kunne ad sia a þeirra Knappa j Helgedomenum, fyrer framann Koorenn. Enn þeir sem wte voru gaatu ecke sied þa, og eru þeir þar allt til þessa Dags.

9. Og þar var eckert j Orkenne, utann allei-

alleinasta þau Tvo Moses Steinspiolld, sem haun liet þangad j Oreb, þa ad DROTTINN giorde eirn Saattmaala vid Israels Born, þa þau voru vtfarenn af Egyptalande.

10. Enn sem Prestarner geingu vt vr Helgedomenum þa uppfyllte eitt Skij Hwus DROTTins.

11. So ad Prestarner gaatu ecke staded, og flutt Embætte fyrer Skijenu, þvi Dijrd DROTTins uppfyllte Hwus DROTTins.

12. Þa sagde Salomon, DROTTinn hefur talad, ad hann villde bwa j Dimmunne,

13. Eg hefe ad sonnu biggt þier eitt Hwus til Ibwdar, eitt Sæte, ad þu skuler þar bwa æfennlega.

14. Og Kongurenn snere sijnu Andlite, og blessade allann Israels Søfnud, enn allur Israels Almwge stood.

15. Og hann sagde. Lofadur sie Drottinn Israels Gud, sem talade med sijnum Munne til mijns Fodurs Davids, og fullkomnade þad med sinne Hende, og sagde.

16. Fra þeim Deige er Eg færde mitt Folk af Egyptalande, hef Eg ecke vtvaled nockurn Stad a medal nockrar Israels Ættkvijslar, ad mier skyllde biggiast eitt Hwus, so ad mitt Nafn skyllde þarinne vera, enn Eg vtvalde David, ad hann skyllde vera yfer mitt Folk Israel.

17. Og minn Fader David hafde ad sonnu huglagt sier ad biggia DROttins Israels Guds Nafne eitt Hwus.

18. Enn DROttinn sagde til mijns Fodurs Davids, Þad þu hefur j Sinne, ad biggia mijnu Nafne eitt Hwus, þa giorder þu vel, ad þu tokst þier þad fyrer.

19. Enn þo skalltu ecke biggia þad Hwus, helldur þinn Sonur, sem koma mun af þijnum Lendum, hann skal biggia mijnu Nafne eitt Hwus.

20. Og DROTTinn hefur stadfest sitt Ord sem hann talade, þvi eg er uppkomenn j Stad mijns Fodurs Davids, og sit a Stoole Israels, so sem DROTTinn sagde, og eg hefe biggt DROTTins Israels Guds Nafne eitt Hwus.

21. Og hefe tilreidt þar eirn Stad til Arkarennar, j hvorre ad er Guds Saattmaale, sem hann giorde vid vora Forfedur, þa hann færde þa af Egyptalande.

22. Og Salomon gieck framm fyrer DROTTins Alltare, j Auglite alls Israels Almwga, og vtbreidde sijnar Hendur til Himens.

II. 23. Og sagde, DROttinn Gud Israels! þar er Eingenn Gud Þier lijkur, hvorke a Himnum uppe, og ei helldur a Jordu nidre. Þu sem helldur þinn Saattmaala og Miskunsemd vid þijna Þienara, þeir sem ganga fyrer þier af ollu Hiarta.

24. Þu sem og hiellst vid David, minn Fodur, þinn Þienara, allt þad þu honum tilsagder, þu talader þad med þijnum Munne, og fullkomnader þad med þinne Hende, so sem þad stendur nu a þessum Deige.

25. Nu DROTTinn Israels! Halt þu vid þinn Þienara David, minn Fodur, þad þu talader til hans, og sagder, Þig skal ecke bresta eirn Mann fyrer mier, sem skal sitia a Israelis Stoole, þo so, ad þijn Born vardveite sijna Vegu, og ad þau gange fyrer mier, so sem þu hefur geinged fyrer mier.

26. Nu, Israels Gud! Laat þijn Ord sannast, sem þu talader til þijns Þienara Davids mijns Fodurs.

27. Þvi meinar þu og so, ad Gud bwe a Jordunne? Siaa, Himenenn og aller Himnanna Himnar kunna ecke ad taka þig, Hvad skyllde þa þetta Hwus þad giora, sem eg hefe uppbiggt?

28. Snu þier til Bænar þijns Þienara, og til hans graatlegrar Beidne, DROttinn Minn Gud! Uppa þad þu heyrer Lofgiord og Bæn, þa sem þinn Þienare giorer j Dag fyrer Þier.

29. So þijn Augu stande openn yfer þessu Hwse

Hvvse Natt og Dag, yfer þessum Stad, sem þu hefur sagt um, Mitt Nafn skal þar vera. Þu vilier heyra þessa Bæn sem þinn Þienare giorer j þessum stad,

30. Og ad þu vilier heyra Bæna-akall þijns Þienara, og þijns Folks Israel, sem þeir munu hier giora j þessum stad, þar þu byr a Himnum, og þa þu þad heyrer, naadugur vera.

31. Þegar nockur syndgast i moote sijnum Naunga, og tekur eirn Eid uppa sig, med hvorium hann plicktar sig, og sa Eidur kiemur fyrer þitt Alltare, j þetta Hvvs.

32. Ad þu vilier hann heyra j Himnenum, og giora þijnum Þienara riett, fordæmande þann Ogudlega, og gialldande hans Veg yfer hans Hofud, og Riettinn tilseigiande þeim Riettvijsa, til ad giefa honum epter sijnu Riettlæte.

33. Þa þitt Folk Israel verdur sleiged fyrer sijnum Ovinum, sokum þess, ad þeir hafa syndgast j moote þier, Og þeir snuast til þijn, og þeir medkienna þitt Nafn, og bidia, og grraatbæna þig j þessu Hvvse,

34. Þa vilier þu heyra þa j Himenenn, og vera naadugur Syndum þijns Folks Israels, og leida þa j Landed aptur, þad sem þu hefur giefed þeirra Forfedrum.

35. Þa ad Himenenn verdur tilluktur so ad þar rigner ecke, sokum þess, ad þeir hafa syndgast j moote þier, og þeir bidia j þessum stad, og medkienna þitt Nafn, og snua sier fra sijnum Syndum, þegar ad þu ploagar þa,

36. Ad þu vilier þa heyra j Himenenn, og vera naadugur yfer Syndum þinna Þienara, og þijns Folks Israels, ad þu vijser þeim þann Gooda Veg, a hvorium þeir skulu ganga, og laat so rigna yfer Landed, hvort þu hefur giefed þijnu Folke til Erfdar.

37. Nær þar kiemur Hallære, eda Drepsott, edur Þurkur, edur (a) Brune, edur Eingespretttur, edur Korn-Ormar a Landed, eda þeirra Oviner j Landenu setiast um þeirra Borgarhlid, eda nockurs haattar Plaaga eda Siukdomur,

(a) (Brune) Þa Kornid visnar edur af brennur fyrer Soolunne.

38. Hvor þa bidur og graatbæner, hvort helldur þad er ein Manneskia, edur allt þitt Folk Israel, þeir sem formerkia sijna Plaagu, hvor j sijnu Hiarta, og utbreida sijnar Hendur til þessa Hvvss.

39. Ad þu vilier heyra j Himenenn, j þvi Sæte þar sem þu byr, og vilier vera naadugur, og skicka so, ad þu giefer sierhvorium epter þvi sem hann hefur geinged, lijka sem þu þecker hans Hiarta, þviad Þu Alleina þecker allra Mannanna Barna Hiortu.

40. Uppa þad, ad þeir oottest þig ætijd, so leinge sem þeir lifa j Landenu, þvi sem þu hefur giefed vorum Forfedrum.

41. Nær ed og so nockur Framande, (b) hann sem ecke er af þijnu Folke Israel, kiemur af fiarlægu Lande, fyrer sokum þijns Nafns,

(b) (Framande) Þetta Hvvs skal vera eitt Bæna-Hvvs fyrer allrahanda Folk.

42. (Þvi þeir munu heyra um þitt Stoora Nafn, og um þijna Megtugu Hond, og um þinn utrietta Arm) og hann kiemur ad bidiast fyrer, fyrer þessu Hvvse.

43. Ad þu vilier þa heyra j Himenenn, j Sæte þijns Bustadar, og giora allt þad sem sa Framande aakallar þig um, uppa þad, ad allar Þioder a Iordunne meige þeckia þitt Nafn, og so oottast þig, lijka sem þitt Folk Israel, Og ad þeir meige vita, hvorsu ad þetta Hvvs, sem eg hefe biggt, er kallad epter þijnu Nafne.

44. Þa ad þitt Folk fer ut j Strijd, j mote sijnum Ovinum, a þann Veg sem þu sender þa, Og þeir bidia til DROTTins, moot Veigenum til þess stadar sem þu utvalder, og til þess Hvvss sem eg hefe biggt þijnu Nafne,

45. Ad þu vilier þa heyra þeirra Bæner og Graatbeidne j Himenenn, og giora (þeim) Riett.

46. Og þa þeir syndgast j moote þier (þvi þar er Eingenn Madur sem ecke syndgast) og

 þu

þu verdur Reidur, og þu giefur þa fyrer þeirra Ovinum, so þeir færa þa burt herteꝁna, j þeirra Ovina Land, langt j burt, eda nœalægt.

47. Og þeir jdrast j sijnu Hiarta, j Landenu þar þeir sitia hertekner, og þeir umvenda sier, og grœatbæna þig j þeirra Herleidingar Lande, og seigia, Vier hǫfum syndgast og jlla giort, og vorum ogudleger.

48. Og þeir snua sier so til þijn af ǫllu Hiarta, og af allre Ond, j sinna Ovina Lande, sem burt hafa fært þa, og bidia til þijn a moote Veigenum til þeirra Lands, sem þu hefur giefed þeirra Forfedrum, til þess stadar sem þu wtvelur, og til þess Hwss sem eg hefe biggt þijnu Nafne.

49. Pa vilier þu heyra þeirra Bæn og Grœatbeidne, j Himnenum, af þijnu Heimelis sæte, og dœma þeim riett.

50. Og vert þijnu Folke nœadugur, sem ad syndgast hefur j moote þier, og ǫllum þeirra Misgiorningum, med hvorium þeir hafa misbroted j moote þier, ad þu giefer þeim Miskunseme fyrer þeim sem þa herteꝁna hallda, og ad þu miskuner þig yfer þa.

51. Þviad þeir eru þitt Folk, og þijn Erfd, hvoria þu færder af Egyptalande, af þeim Jarn-Ofne.

52. Og ad þijn Augu sieu openn til Grœatbeidne þijns Pienara, og þijns Folks Israelis, ad þu vilier heyra þa j ǫllu þvi hvar um hellst þeir bidia þig.

53. Þvi þu wtvalder þa þier til Arfleifdar, af ǫllu þvi Folke sem a Jordunne er, so sem þu talader vid Mosen þinn Þienara, Þann tijma þu færder vora Forfedur af Egyptalande, DROTTinn, DROTTinn!

III. 54. Og sem Salomon hafde endad allar þessar Bæner, og Akall fyrer DROTTni, þa reis hann upp fra Alltare DROTTins, og liet þa af ad beigia sijn Knie, og wt ad breida sijnar Hendur til Himensins.

55. Og foor til ad blessa allann Israels Sǫfnud med hœarre Raust, seigiande,

56. Blessadur sie DROTTinn sem giefed hefur sijnu Folke Israel Hvijld, sem hann hefur talad, þvi þar vantar ecke eitt af hans goodum Ordum, sem hann talade fyrer sinn Pienara Mosen.

57. DROTTinn vor Gud vere med oss, sem hann hefur vered med vorum Forfedrum. Hann yfergiefe oss ecke, og take ecke sijna Hond fra oss.

58. So ad vier hneigium vor Hiortu ad honum, og ad vier mættum ganga j ollum hans Vegum, og hallda hans Bodord, Skickaner, og Riettinde, sem hann hefur boded vorum Forfedrum.

59. Og þesse Ord, sem eg hefe beded fyrer DROttni, mættu nœalægiast DROTTinn Gud vorn, Dag og Noott, ad hann vilie skicka Riett sijnum Pienorum, og so sijnu Folke Israel, hvorium a sijnum Tijma.

60. So ad allt Folk a Jordunne meige þeckia, ad DROttinn er Gud, og Eingenn annar.

61. Og ad ydar Hiortu sieu riett-skickud fyrer DROttni Vorum Gude, til ad ganga j hans Setningum, og ad hallda hans Bodord, lijka sem a þessum Deige skiedur.

62. Og Kongurenn, og allur Israel, foornfærdu Foorner fyrer DROTTni.

63. Og Salomon færde Packlætis Foorner (þær sem hann offrade DROTTne) Tvo og Tuttugu Þusund Uxa, og Hundrad og tuttugu Þusund Sauda, so vijgdu þeir Hws DROTTins, Kongurenn, og oll Israels Born.

64. Þann sama Dag vijgde og Kongurenn Midgardinn, sem var fyrer DROtuns Hwse, þvi hann færde þar Brenneoffur, Matoffur, og Packoffurs Feite. Þvi þad Kopar Alltare, sem stood fyrer DROTTni, var oflijted til Brenneoffursins, Matoffursins, og til Packaroffursins Feitleika.

65. Og Salomon hiellt a þeim sama tijma eina Hœatijd, og allur Israel med honum, einn mikell Mannfiollde, fra Hemath Landamerkium, og allt til Egypti Lækiar,

fyrer

DROTTne vorum Gude, j Sio Daga, og enn aptur j Sio Daga, þad voru fiortan Dagar.

66. Og hann liet Folked fara þann Aattunda Dag. Og þeir bleſſudu Kongenn, og geingu glader j burt til Tialldbwda sinna, og fagnande j sijnu Hiarta, yfer ollu þvi gooda sem DROTTinn hafde giort sijnum Þienara David, og sijnu Folke Israel.

## IX. Capitule.

(I) Salomon er Bænheyrdur; (II) Hans Þacklæte vid Konungenn af Tyrus; (III) Skattur til DRottens, sijns, og annra Husa; (IV) Hans Þegnar; (V) Offur; (VI) Skip.

I. Þa Salomon hafde fullkomnad ad biggia DROTTins Hws, og Kongsins Hws, og allt sem hann gyrnteſt, og hann hafde lyſt til ad giora,

2. Þa birteſt DROTTinn honum j annad sinn, so sem hann birteſt honum j Gibeon.

3. Og DROTTinn sagde til hans, Eg hefe heyrt þijna Bæn og Groatbeidne, sem þu hefur groatbænt mig um, og Eg hefe helgad þetta Hws, sem þu hefur biggt, ad Eg vil ſetia mitt Nafn þar jnn æfinlega, og mijn Augu og mitt Hiarta ſkulu þar vera ætijd.

4. Og ef þu geingur fyrer mier, lijka sem þinn Fader David gieck, med einu Riettſkicku du og riettſinnudu Hiarta, og giorer allt þad sem Eg hefe boded þier, og helldur mijn Bodord, og mijn Riettinde.

5. Þa vil Eg ſtadfeſta Stool þijns Kongs Rijkis, yfer Israel æfinlega, so sem Eg talade til þijns Fodurs Davids, og sagde, Þig ſkal ecke vanta eirn Mann af Israels Stoole.

6. Enn ef þier snued ydur til baka fra Mier, þier og ydar Born, og hallded ecke mijn Bodord, og mijn Riettinde, sem Eg lagda framm fyrer ydur, og fared og þioned odrum Gudum, og tilbidied þa,

7. Þa vil Eg uppræta Israel af Landenu, þvi sem Eg hefe giefed þeim, Og þad Hws sem Eg hefe helgad til mijns Nafns, þad vil Eg forlaata fra mijnu Auglite.

8 Og Israel ſkal verda ad Ordskvid og Æfintijre medal alls Folks. Og þetta Hused ſkal nidur briotaſt, so ad aller þeir sem þar framm hia ganga, þeim mun bloſkra, þeir munu blyſtra, og ſeigia, Þvi hefur DRottinn giort so þeſſu Lande, og þeſſu Hwſe?

9. Þa mun svarad verda, Af þvi, ad þeir forlietu DROTTinn sinn Gud, hann sem færde þeirra Forfedur af Egyptalande, og tooku ſier adra Gude, tilbaadu þa, og þionudu þeim, þvi hefur DROTTinn leidt allt þetta hid Vonda yfer þa.

II. 10. Enn sem þau Tuttugu Aar voru lidenn, a hvorium ad Salomon biggde þau Tvo Hws, DROttins Hws, og Kongsins Hws.

11. Til hvorra Hiram, Kongur j Tyro, sende Salomon Konge Cedrus Trie, og Grene Trie, og Gull, epter allre hans Oſk, þa gaf Kong Salomon Hiram Tuttugu Stade j Galilea Lande.

12. Og Hiram for ut af Tyro, ad ſkoda þa somu Stade, sem Salomon hafde giefed honum, enn þeir lijkudu honum ecke.

13. Og sagde, Hvad er þad fyrer Stade, Minn Broder! sem þu hefur giefed mier? Og hann kallade þa Cabul Land, jnn til þeſſa Dags.

III. 14. Og Hiram hafde sendt Kongenum Hundrad og Tuttugu Centener Gulls.

15. Og þad sama er Summa af þeim Skatte, sem Kong Salomon tok upp, til ad biggia DROTTins Hws, og sitt Hws, og Millo, og Jeruſalems Mwrvegge, og Hazor, og Megiddo, og Gaser.

16. Þvi Pharao Kongur af Egyptalande var komenn upp, og hafde unned Gaser, og brennt hana med Ellde, og jhel ſleiged þa Cananita sem biuggu j Stadnum, og hafde giefed sinne Dottur, Salomonis Hwsfru, hann til eirnrar Giafu.



17. So

17. So uppbiggde Salomon Gaser, og þad nedra Beth-Horon.

18. Og Baelath, og Thamar, j Eydemorkenne j Landenu,

19. Og alla Stade sem Salomon hafde Korn Hws j, og so alla þa Stade þar hann hafde sijna Vagna, og þa Stade sem hann hafde sijna Riddara j, og hvar hann hafde Lyst til ad biggia, j Jerusalem, j Libanon, og j ollu Lande sijns Herradœmis.

IV. 20. Og allt þad Folk sem epter var ordid af þeim Amoritum, Hethitum, Pheresitum, Hevitum, og Jebusitum, sem ecke voru af Jsraels Bornum,

21. Þeirra Born, sem þeir lietu epter sig j Landenu, hvoria Jsraels Born kunnu ecke ad eydeleggia, þa giorde Salomon skattgyllda, allt til þessa Dags.

22. Enn af Jsraels Bornum giorde hann ecke neina Prœla, helldur liet þa vera Strijds-Menn, og sijna Þienara, Hofdingia, og Riddara, og vera yfer sijnum Vognum, og Riddorum.

23. Og þeir Umbods Menn sem voru yfer Salomons Erenda-giordum, þeir voru Fimm Hundrud og Fimmtijge, sem stiornudu yfer Folked, og Erendonum frammfilgdu.

24. Og Pharaonis Dotter ferdadest upp fra Davids Stad, j sitt Hws, sem hann hafde uppbiggt handa henne, þa biggde hann og so Millo.

V. 25. Og Salomon offrade Prisvarsinnum hvort aar Brenneoffre, og Packlætis-Offre, yfer þvi Alltare sem hann biggde DROttne, og giorde Reykelse yfer þad fyrer DROttne, og so vard Hwsed fullkomnad.

VI. 26. Salomon biggde og so Skip j EzeonGaber, sem liggur hia Eloth, hia Fioru þess Rauda Haffsins, j Lande Edomita.

27. Og Hiram sende sijna Þienara til Skips, sem voru goder Farmenn, og vel reynder til Sios, med Salomons Þienorum.

28. Og þeir komu til Ophir, og feingu þar Fiogur Hundrud og Tuttugu Centener Gulls, og færdu þad Salomon Konge.

## X. Capitule.

Salomons (I) Virding (II) Jnntekt (III) Audur.

I. Enn sem Salomons * Rikte, vot af Nafnenu DROTTins, kom fyrer Drotninguna af Rijke Arabia, þa kom hun, ad freista hans med dioupum Spurningum.

* Matth. 12, 42. Luc. 11, 31.

2. Og hun kom til Jerusalem med miog miklum Flock, med Ulfolldum, sem bâru Jurter, og miked Gull, og dijrdlega Steina. Og sem hun kom jnn til Salomons Kongs, þa talade hun vid hann, allt þad hun hafde sier æsett.

3. Og Salomon sagde henne þad alltsaman, og þar var eckert huled fyrer Kongenum, ad hann sagde henne eige.

4. Enn sem Drottningenn af Arabia Rijke sraa allann Salomons Vijsdom, og Hwsid þad hann hafde smijdad,

5. Og Vister til hans Bords, og Herberginn hans Þienara, og Embætte þeirra er honum þionudu, og þeirra Klædnad, og hans Skeinkiara, og hans Brenneforner, sem hann offrade j DROTTins Hwse, þa gat hun ecke hallded sier leingur,

6. Og sagde til Kongsins, Þad er satt, sem eg hefe heyrt j mijnu Lande um þijn Efne, og um þinn Vijsdom.

7. Enn eg villda ecke trwa þvi, fyrr enn eg kom, og sraa þad med mijnum Augum. Og sioa, þad var mier ecke hoalfpart affagt, Miklu meire er þinn Vijsdomur og Audæfe enn su Fregn er sem eg heyrda.

8. Sælt er þitt Folk, og þijner Þienarar, sem ad alltijd standa fyrer þier, og heyra þinn Vijsdom.

9. Lofadur vere DROTTINN þinn Gud, sem hefur Lyst til þijn, ad hann hefur sett þig uppa Jsraels Stool, fyrer þvi, ad DROTTINN elskar Jsrael æfinnlega, og

og sette þig til Kongs, ad þu skuler hallda Doma og Riettinde.

10. Og hun gaf Kongenum Hundrad og Tuttugu Centener Gulls, og miøg margar kostulegar Jurter, og dyrlega Gimsteina. Þar komu ecke siidann so margar kostulegar Jurter, so sem Drottningenn af Rijke Arabia gaf Salomon Konge.

11. Þar med Skip Hirams, sem færdu Gull af Ophir, þau fluttu og miøg mikel (a) Hebentrie, og dyrlega Steina.

(a) Hebentrie) Er Trie sem vex j Indialande.

12. Og Kongurenn liet giøra Pilara af þvi sama Hebentrie, j DROTTins Hwse, og j Kongsins Hwse, so og Horpur, og Psalltara til Saungvaranna. Þar komu ecke upp fra þvi þvilijk Hebentrie, þau voru ecke helldur sien til þessa Dags.

13. Og Kong Salomon gaf Drottningunne af Rijke Arabia, allt þad hun villde gyrnast, og hun um bad, fyrer utann þad sem hann gaf henne sialfur. Og hun snere sier, og ferdadest j sitt Land med sijnum Pienorum.

II. 14. Þad Gull sem Salomon fieck a einu are var ad vigt Sex Hundrud Sex og Sextijge Centener.

15. Um framm þad sem kom fra Kromorum, Kaupmonnum, og þeim ed Jurter selldu, og fra øllum Kongum af Arabia, og fra þeim Vollduga i Londonum.

16. Og Salomon Kongur liet giøra Tvo Hundrud Skiolldu, af þvi enu besta Gulle, og þar voru Sex Hundrud Sticke Gulls j hvorium Skyllde.

17. Og Þriu Hundrud Bucklara af þvi besta Gulle, jaa, Þriu Pund Gulls til hvors Bucklara. Og Kongurenn lagde þa j Hwsed, sem giørt var af Libanon Skoge.

III. 18. Og Kongurenn giørde eirn Storann Stool af Fils Beinum, og bio hann med þvi skiærasta Gulle.

19. Og Stoollenn hafde Sex Troppur, og Høfuded a Stoolnum var kringlott a bak til, og þar voru Brijkur a baadar Siijdur j kringum Sæted, og Tvær Leonsjnnur stodu hia Brijkonum.

20. Og þar stodu Tolf Leon a þeim Sex Troppum, a baadar Siijdur, þvilijkt var alldrei giørt j nockru Kongs Rijke.

21. Øll Kong Salomons Drickiar Kier voru af Gulle, og øll Kier j Hwsenu Libanon Skogs voru og af klaaru Gulle. Þviad ei þotte Silfur nockurs verdt j Kong Salomons Tijd,

22. Fyrer þvi, ad Kongsins Skip, sem voru a Sionum med Hirams Skipum, þau komu eitt Sinn j Premur aarum, og fluttu Gull, Silfur, Fijls Bein, Apiniur, og Paafugla.

23. So mikladest Salomon Kongur ad Audæfum, og Vijsdome, umframm alla adra Konga a Jordunne.

24. Og allur Heimurenn gyrntest ad sia Salomon, so þeir mættu heyra hans Vijsdom, sem GUD hafde giefed honum j hans Hiarta.

25. Og hvor Madur færde honum Gaafur, Silfurkier, og Gullkier, Klæde, og Bryniur, Jurter, Hesta, og Mwla, hvort aar.

26. Og Salomon safnade samann Vognum og Riddorum, so hann hafde Þusund og Fiogur Hundrud Vagna, og Tolf Þusund Riddara, og liet þa vera j Vagnastodunum, og hia Kongenum j Jerusalem.

27. Og Kongurenn giørde þad, ad ei var onægra Silfur j Jerusalem enn Steinar, og so mikel Cedrus-Trie sem Villufijkiu-Trie j Dolunum.

28. Og Salomone voru færder Hestar af Egyptalande, og allra handa Vara. Og Kongsins Kaupmenn keyptu þa somu Voru, og færdu hana af Egyptalande,

29. Jaa, eirn Vagn fyrer Sex Hundrud Silfur Peninga, og eirn Hest fyrer Hundrad og Fimmtijge. So færdu Menn þa og øllum Kongum þeirra Hethita, og til Konganna j Syria fyrer þeirra Hond.

# XI. Capitule.

(I) Salomons Kvinnur; (II) Afgudadijrdkan; (III) Ovjner; (IV) Daude.

I. Salomon Kongur elskade margar vtlendskar Kvinnur, Dottur Pharaonis, og Moabitiskar, Ammonitiskar, Edomitiskar, Zidonitiskar, og Hethitiskar,

2. Af þesshattar Folke, um hvort ad DROTTinn hafde sagt til Israels Barna, Ganged ecke til þeirra, og laated þær ecke koma til ydar, þær munu vissulega beigia ydar Hiortu epter sijnum Gudum. Enn til þessara vard Salomon upptendradur med ástar Elsku.

3. Og hann hafde Siøhundrud Eigennkonur, og Þriu Hundrud Frillur. Og hans Kvinnur beigdu hans Hiarta.

II. 4. Og þa hann var ordenn gamall, sneru hans Kvinnur hans Hiarta epter annarlegum Gudum, so ad hans Hiarta vard ecke allt med DROTTne sijnum Gude, so sem Hiarta hans Fodurs Davids.

5. So gieck Salomon epter Astoreth, sem var Skurgod þeirra Zidonia, og epter Milkom, þeirra Ammonita Svijvirdingu.

6. Og Salomon giorde þad sem DRottne jlla lijkade, og epterfilgde ecke DROttni so fullkomlega sem hans Fader David.

7. Þa biggde Salomon eina Hæd, Chamos Moabita Svijvirdingu, a þvi Fialle sem liggur gegnt Jerusalem, og Molech, Svijvirdingu þeirra Ammonita.

8. Med sama hætte giorde Salomon øllum sijnum Utlendskum Kvinnum, hveriar Reykelse gaafu, og Foorner færdu sijnum Gudum.

III. 9. Og DROTTinn vard reidur vid Salomon, ad hans Hiarta vard snwed fra DROTTni Israels Gude, sem tvær reisur hafde birtst hønum.

10. Og baud hønum þetta, ad hann skyllde ecke ganga epter annarlegum Gudum, Enn hiellt þo ecke þad sem DROTTinn baud hønum.

11. Og þvi sagde DROTTinn til Salomons. Fyrer þa skulld, ad soddan er skied hiaa þier, og þu hefur ecke hallded minn Saattmaala og mijn Bodord, sem Eg hefe boded þier; þa vil Eg slijta Kongsrijked fraa þier, og giefa þad þijnum Þienara.

12. Enn þo vil Eg ecke giora þad a þijnum Dogum, fyrer sokum þijns Fodurs Davids, enn af þijns Sonar Hende vil Eg slijta þad.

13. Þo vil Eg ecke slijta allt Rijked j burt, Eina Kinkvijsl vil Eg giefa þijnum Syne, fyrer sokum mijns Þienara Davids, og so sokum Jerusalem, hvoria Eg hefe vtvaled.

14. Og DROTTinn uppvakte Salomone einn Mootstodu Mann, Hadad af Edom, hann var af Konglegu Sæde, sem var j Edom.

15. Þviad j þann tijma sem David var j Edom, og Joab Hershofdinge foor upp ad jarda þa sem slegner voru, þa drap hann Karlkined j Edom.

16. Þvi Joab, og allt Israels Folk, var þar j Sex Maanude, so leinge sem hann feinge upprætt allt Karlkins j Edom.

17. Þa flyde Hadad, og nockrer af þeim Edomita Mønnum, af hans Fodurs Þienorum, med hønum, so þeir komu j Egyptaland. Enn Hadad var eirn ungur Sveirn.

18. Og þeir tooku sig upp fra Midian, og komu til Paran, og tooku med sier Folk af Paran, og komu j Egyptaland, til Pharao, Kongs af Egyptalande. Og hann gaf hønum Hws og tæring, og gaf hønum eitt Land jnn.

19. Og Hadad fann stoora Naad fyrer Pharaone, so hann gipte hønum Systur sinnar Kvinnu Thaphenes Drottningar.

20. Og Thaphenes Syster fædde hønum Genubath hans son, Og Thaphenes fooastrade hann upp j Pharaonis Hwse, og Genubath var j Pharaonis Hwse, medal Pharaonis Barna.

21. Enn sem Hadad heyrde j Egyptaland, ad David var sofnadur med siinum Fedrum, og ad Joab, hans Herhöfdinge, var daudur, þa sagde hann til Pharaonis, Leyf mier ad fara j mitt Land.

22. Enn Pharao sagde til hans, Hvad vantar þig hioa mier, ad þu villt fara j þitt Land? Hann svarade, Eckert, enn lꝍat mig fara.

23. Gud uppvakte og so Salomone eirn Mootstandara, Reson, son EliJada, sem flꝍed hafde fra siinum Herra HadadEser, Kongenum af Zoba.

24. Og hann safnade Mønnum j moote hønum, og vard eirn Høfudsmann fyrer Striidsfolkenu, þa David sloo þa j hel, og þeir fooru j Damasco, og bioggu þar, og riiktu j Damasco.

25. Og hann var Israels Mootstandare, so leinge sem Salomon lifde. Þad er sa Skade sem Hadad leid, og þvi hafde hann andstyggd a Israel, og vard Kongur yfer Syria.

26. So og Jeroboam, son Nebat, sem var Ephrateus, af Zareda, Salomons Pienare, og hans Moder hiet Zeruga, og var ein Eckia, Hann upplypte og sinne Hende moote Kongenum.

27. Enn þad var Søkenn, þvi hann uppreiste siina Hønd j moote Kongenum, Ad þa Salomon biggde Millo, þa tillukte hann Davids siins Fødurs Stad.

28. Og Jeroboam var eirn goodur Striidsmann, Og sem Salomon sꝍa, ad þesse Sveirn var duganlegur, þa sette hann hann yfer Byrde alls Josephs Hwss.

29. Og þad skiede so a þann Tiima, ad Jeroboam gieck wt af Jerusalem, þa kom Ahia Spꝍamadur af Silo til hans a Veigenum, og hafde eirn nyann Kyrtel yfer sier, og þeir voru bꝍader einersaman a Akre.

30. Og Ahia took þann nya Kyrtelenn sem hann hafde yfer sier, og reif hann j Toolf parta.

31. Og sagde til Jeroboam, Tak þa Tiju Parta til þiin, þvi so seiger DROTTinn Israels Gud, Sioa, Eg vil riifa Kongsriiked af Salomons Hende, og giefa þier Tiju Ættkviisler.

32. Enn hann skal hafa eina * Kinkviisl, sokum miins Pienara Davids, og vegna Borgarennar Jerusalem, sem Eg utvalde af ollum Israelis Ættum.

* Juda og BenJamin reiknast hier fyrer eina Kinkviisl.

33. Søkum þess, ad þeir hafa forlꝍated mig, og tilbeded Astoreth, Gud Zidoniorum, Chamos, Moabita Gud, og Milkom, Amnons Barna Gud, og hafa ecke geinged a miinum Vegum, ad giora hvad mier var þꝍgelegt, ad hallda miin Bodord, og Riettinde, so sem David hans Fader.

34. Eg vil ecke taka allt Riiked af hans Hende, helldur vil eg giora hann ad Høfdingia alla hans Liifdaga, fyrer skulld Davids miins Pienara, hvorn Eg utvalda, hvør ad hiellt miin Bodord og Riettinde.

35. Af hans Sonar Hende vil Eg Kongsriiked taka, og giefa þier Tiju Ætter.

36. Enn hans Syne eina Kinkviisl, so ad David minn Pienare hafe ætiid eitt Lioós fyrer mier j Jerusalem Borg, hvoria Eg utvalde mier, so ad Eg setie þar mitt Nafn.

37. Enn þig vil Eg nu taka, ad þu skallt stiorna yfer allt þad sem þitt Hiarta hefur gyrnd a, og þu skallt vera Kongur yfer Israel.

38. Ef þu hlyder nu ollu þvi sem Eg byd þier, og geingur a miinum Vegum, og giorer þad sem mier er þꝍgelegt, so ad þu halldér miin Riettinde og Bodord, so sem David minn Pienare giorde, þa vil Eg vera med þier, og biggia þier eitt stadfast Hwss, sem Eg biggde David, og Eg vil giefa þier Israel,

39. Og Eg vil nidur þrickia Davids Sæde þess vegna, enn þo ecke eyliiflegá.

40. Og Salomon leitade vid ad drepa Jeroboam, Pa tok Jeroboam sig upp, og flyde j Egyptaland, til Sisak, Kongsins j Egyptalande, og var j Egyptalande, allt til Dauda Salomonis.

IV. 41. Enn hvad sem meira er ad seigia um Salomon, og allt hvad hann hefur giort, og hans Speke, þad er skrifad j Chronicunne um Salomon,

42. Enn sa Tijme sem Salomon var Kongur j Jerusalem yfer allann Israel, þad voru Fiorutiige Aar.

43. Og Salomon sofnade med sijnum Fedrum, og vard jardadur j Borg sijns Fodurs Davids, og hans son Roboam vard Kongur j hans Stad.

# XII. Capitule.

*Hversu ad þær Tolf Ættkvijsler skiptast, so ad nockrar gefa sig (I) under Roboam; og (II) nockrar under Jeroboam.*

I. Og Roboam foor upp til Sichem, þviad allur Israel var komenn til Sichem, ad taka hann til Kongs.

2. Og Jeroboam, son Nebat, friette þetta, þa hann enn var'j Egyptalande, hvert hann hafde flvwed fyrer Salomon Konge, og var j Egyptalande.

3. Og þeir sendu j burt, og lietu kalla hann. Og Jeroboam, og allur Israels Sofnudur komu og toludu vid Roboam, og þeir sogdu.

4. Þinn Fader giorde vort Ok ofhardt, so gior nu þa hordu Þioonustu, og þad þunga Ok liettara, sem hann lagde uppa oss, þa vilium vier vera þier undergiefner.

5. Enn hann sagde til þeirra, Fared burt allt til þess þridia Dags, og komed so aptur til mijn. Þa gieck Folked j burt.

6. Roboam Kongur hiellt Road vid Olldungana, sem stoodu fyrer hans Fodur Salomone, þa hann lifde, og sagde, Hvad legged þier til Roads, ad vier kunnum ad giefa þessu Folke eitt Andsvar?

7. Þeir sogdu til hans, Ef þu villt giora þessu Folke eina þienustu, a þessum Deige, og vera þeim til Vilia, og hlijda þeim, og giefa þeim good Ord, þa munu þeir verda þier undergiefner, alla þijna Daga.

8. Enn hann yfergaf Olldunganna Road, sem þeir geafu honum, og hiellt eitt Road med þeim Ungu sem upp hofdu alest med honum, og stoodu fyrer honum.

9. Og hann sagde til þeirra, Hvad Road legged þier, ad vier andsvorum þessu Folke, sem sagde til mijn, Gior þad Ok liettara sem þinn Fader lagde a oss?

10. Og þeir Ungu, sem voru uppvaxner med honum, sogdu til hans, Þu skallt so seigia til Folksins, sem seiger til þijn, Þinn Fader giorde vort Ok ofþungt, gior þu oss þad liettara, Minn minnste Fingur skal vera þickre enn mijns Fodurs Lendar.

11. Nu, minn Fader lagde þungt Ok a ydur, Enn eg vil giora þad enn meira yfer ydur, Minn Fader straffade ydur med Svipum, Eg vil straffa ydur med Hoggormum.

12. A þeim þridia Deige kom Jeroboam, og allt Folked, fyrer Roboam, so sem Kongurenn hafde talad, og sagt, Komed aptur til mijn a þeim þridia Deige.

13. Og Kongurenn gaf Folkenu eitt hardt svar, og forliet þad Road sem Olldungarner geafu honum,

14. Og talade vid þa epter Roade hinna Ungu, og sagde; Minn Fader giorde ydar Ok þungt, Enn eg vil giora þad enn meira yfer ydur, minn Fader straffade ydur med Svipum, enn eg vil straffa ydur med Hoggormum.

15. So hlydde Kongurenn ecke Folkenu, þvi DROTTinn snere þvi so, ad hann villde stadfesta sitt Ord, þad hann talade til Jeroboam, sonar Nebat, fyrer Ahia af Silo.

16. Enn sem allur Israel sea þad, ad Kongurenn villde ecke heyra þa, þa gaf Folked Kongenum Andsvar, og sagde, Hvada Hlut eigum vier under David, eda Arfleifd under Syne Isai? Israel! Far þu til þinna Heimela, Enn sioa þu til þijns Hwss David! * So gieck Israel til sinna Heimela.

* [Salomonis Kongs Rijke sundur skiptist j Juda og Israel, a þvi Aari epter Helmsins Upphaf, 2970. fyrer Christi Hingad Fæding 990.]

17. A

17. Ad Roboam ecke rijkte utann yfer Jsraels Bornum, þeim sem ad bigggu j Juda Borgum.

18. Og þa Kongur Roboam sende Adoram sinn Rentumeistara vt, þa grytte allur Jsrael hann jhel med Steinum. Enn Roboam Kongur stie skyndelega a eirn Vagn, og flwde til Jerusalem.

19. J sodann mata fiell Jsrael fra Davids Hwse, allt til þessa Dags.

II. 20. Enn sem allur Jsrael heyrde nu, ad Jeroboam var aptur komenn, þa sendu þeir vt, og lietu kalla hann til alls Safnadarins, og settu hann til Kongs yfer allann Jsrael. Og þar filgde eingenn Davids Hwse, utann alleina Kinþattur Juda.

21. Enn sem Roboam kom til Jerusalem, þa safnade hann samann ollu Hwse Juda, og BenJamin Kinkvijsl, Hundrad og atta tijger Þusunder ungra Strijdsmanna, ad beriast a mote Jsraels Hwse, og færa Rijked aptur under Roboam Salomons Son.

22. Enn Guds Ord kom til Semaia Guds Manns, og sagde.

23. Tala þu til Roboam, Salomons Sonar, Juda Kongs, og til alls Hwssens Juda, og BenJamin, og til þess annars Folksins, og seig.

24. So seiger DROTTinn, Eige skulud þier fara upp og beriast a mote ydrum Brædrum, Jsraels Bornum, Fare hvor Madur heim aptur, þvi þetta er skied af Mier. Og þeir hlyddu DROTTins Orde, og snerú aptur, ad ganga j burt, so sem DROTtinn hafde sagt.

25. Enn Jeroboam biggde upp Sichem a Fiallenu Ephraim, og bio þar, og hann for þar fra, og uppbiggde Pnuel.

26. Enn Jeroboam hugsade j sijnu Hiarta, Kongs Rijked mun falla aptur under Davids Hws.

27. Ef Folked skal fara upp ad færa Forner j DROTTins Hwse til Jerusalem, og Folksins Hiarta mun snwa sier til þeirra Herra, Roboam Juda Kongs, enn slaa mig jhel, og falla aptur under Roboam Kong Juda.

28. Og Kongurenn hiellt eitt Raad, og giorde Tvo Kalfa af Gulle, og sagde til þeirra, Þad er ydur ofþungt ad fara upp til Jerusalem, Sia, þar eru þijner Guder, Jsrael! sem leiddu þig af Egyptalande.

29. Og hann sette þann eina j BethEl, enn annann sette hann j Dan.

30. Og þetta vard til Syndar, þviad Folked gieck fyrer þann eina allt til Dan.

31. Hann giorde og eitt Hws a Hædonum, og sette til Presta af þeim hinum minnstu hattar a medal Folksins, hvorier ad ecke voru af Levi Bornum.

32. Hann sette og eitt Hatijdar-halld a þeim Fimmtanda Deige þess attunda Manadar, lijka sem þa Hatijdena j Juda, og færde Forner yfer Alltared. So giorde hann og j BethEl, ad Menn offrudu til þeirra Kalfa sem hann hafde giort. Og hann sette Presta j Bethel til þeirra Hæda sem hann hafde giort.

33. Og hann færde Forner yfer þad Alltare (sem hann hafde giort) j BethEl, þann Fimmtanda Dag j þeim attunda Manude, hvad hann sialfur upphugsade af sijnu Hiarta, og hann sette Jsraels Bornum Hatijder, og offrade a Alltarenu, ad Menn skylldu brenna Reykelse.

## XIII. Capitule.

(I) Einn Prophete af Juda spaer i mote Jeroboams Alltare; Enn (II) er sijdann drepinn af einu Leone.

I. Og sia, eirn Guds Madur af Juda kom til BethEl, fyrer Ord DROTtins, og Jeroboam stod hia Alltarenu ad brenna Reykelse.

2. Og hann hroopade j giegn Alltarenu, fyrer DROTTins Ord, og sagde, Alltare! Alltare! So seiger DROTTinn, Sia, Davids Hwse skal fædast eirn Sonur, ad Nafne Josia, hann mun offra a þier Hæ-

þanna Prestum, hwerier ad giora Reykelse a þier, og hann mun brenna Manna Beinum a þier.

3. Og a þeim sama Deige gaf hann eitt Furdu-Teikn, og sagde, Pad er Furdann þar til, ad DROTTinn talade þetta, Sioa, Alltared skal rifna, og Askann nidur hristast sem a þvi er.

4. Sem Kongurenn heyrde nu Ord þessa Guds Manns, sem kallade jmote Alltarenu j BethEl, þa riette hann wt siina Hond hioa Alltarenu, og sagde, Grijped hann. Og hans Hond visnade, su hann wtriette a mote hønum, og hann gat ecke dregid hana aptur ad sier.

5. Og Alltared klofnade, Askann hristest og nidur af Alltarenu, epter þvi Furdu-Teikne sem Guds Madur hafde giefed fyrer Ord DROTTins.

6. Og Kongurenn svarade, og sagde til þessa Guds Manns, Akalla DROTTins þijns Guds Auglit, og bid fyrer mier, so ad mijn Hond kome til mijn aptur, þa tilbad sa Guds Madur Auglit DROTTins, og Kongsins Hond kom til hans aptur, og vard so sem aadur var hun.

7. Og Kongurenn talade vid þann Guds Mann, Kom heim med mier, og nær þig, eg vil giefa þier eina Gaafu.

8. Enn Guds Madur sagde til Kongsins, Po þu villder giefa mier haalfpart af þijnu Hwse, þa kiem eg þo ecke med þier. Þvi eg vil ecke eta Braud, nie drecka Vatn, j þessum Stad.

9. Þvi þad er mier so boded fyrer Ord DROTTins, og sagt, Pu skallt ei eta Braud, nie drecka Vatn, og eige helldur koma aptur um þann Veg sem þu foorst um,

10. Og hann foor um annann Veg, og kom ecke aptur um þann Veg sem hann hafde komed til BethEl.

II. 11. Og þar bio eirn gamall Spaamadur j BethEl, hans Sonur kom til hans, og greinde hønum alla þa Giorninga sem Guds Madur hafde framed þann Dag j BethEl, og þau Ord sem hann hafde talad vid Kongenn, og þeir søgdu siinum Fødur fra þeim.

12. Og þeirra Fader sagde til þeirra, Hvar er Vegurenn sem hann ferdadest um? Og hans Syner vijsudu hønum Vegenn, þann sem Guds Madur hafde fared, og komenn var af Juda.

13. Þa sagde hann til sinna Sona, Sødled mier Asna. Sem þeir høfdu Asnann sødlad, þa reid hann þar a,

14. Og for epter Guds Manne, og fann hann sitiande under eirne Eik, og sagde til hans, Ert þu Guds Madur sem komenn er fra Juda? Hann sagde, Jaa.

15. Hann sagde til hans, Kom heim med mier, og et Braud.

16. Hann svarade, Eige maa eg snwa aptur med þier, og koma med þier, Eg vil ei helldur eta Braud, nie drecka Vatn med þier j þessum Stad.

17. Þvi so er sagt til mijn fyrer DROTtins Ord, Pu skallt hvorke eta þar Braud, nie drecka Vatn, þu skallt eige fara aptur um þann sama Veg sem þu foorst.

18. Hann svarade hønum, Eg er og so eirn Spaamadur so sem þu, og eirn Eingell talade vid mig fyrer DROTTins Ord, og sagde, Leid þu hann aptur heim med þier, so ad hann ete Braud og drecke Vatn.

19. Enn hann laug ad hønum, og hann snere aptur med hønum, so ad hann aat Braud, og drack Vatn, j hans Hwse.

20. Nu sem þeir saatu til Bords, þa kom Guds Ord til Spaamannsins, hvør ed hann hafde aptur leidt.

21. Og hann kallade til þess Guds Manns, sem var komenn af Juda, og sagde, So seiger DROttinn, Sokum þess ad þu varst Munne DROTTins ohlydugur, og hiellst ecke þad Bodord sem DROTTinn þinn Gud baud þier.

22. Og þu snerer aptur, og aatst Braud, og drackst Vatn, j þeim Stad sem hann sagde þier af, Pu skallt þar hvorke eta Braud, nie

nie drecka Vatn, þar fyrer skal þinn Lijkame ecke koma j þinna Fedra Grøf.

23. Enn sem hann hafde eted Braud, og drucked, þa var sodladur Spaamannsins Asne þess sem honum hafde aptur snwed.

24. Og þa hann for fann eitt Leon hann a Veigenum, og drap hann. Og hans Lijkame laa kollkastadur a Veigenum, og Asnenn stod hiaa honum, og Leoned stod hiaa Lijkamanum.

25. Og sem Menn geingu þar framm hiaa, sau þeir Lijkamann kollkastadann a Gotunne, og Leoned standanda hiaa Lijkamanum. Og þeir komu, og sogdu þad j Stadinn, þar sem sa gamle Spaamadur bio j.

26. Sem Spaamadurenn heyrde þetta, sa honum hafde aptur snwed, þa sagde hañ, Pad er sa Guds Madur, sem Drottins Munne var ohlydugur, þvi gaf GUD hann Leonenu, ad þad sundur murde og drap hann, epter þvi Orde sem DROTTinn sagde honum.

27. Og hann sagde til sinna Sona, Sodled minn Asna. Og sem þeir hofdu sodlad hann,

28. Ferdadest hann af Stad, og fann hans Lijkama nidurkastadann a Veigenum, og Asnañ, og Leoned standa hiaa Lijkamanum. Og Leoned hafde ecke par eted af Lijkamanum, og ecke helldur sundur rifed Asnann.

29. Pa tok Spaamadurenn þess Guds Manns Lijkama upp, og lagde hann a Asnann, og flutte hann aptur, og kom j þess gamla Spaamanns Borg, ad þeir skyldu grata þar, og jarda hann.

30. Og hann lagde Lijkamann j sijna Grøf, og þeir grietu yfer honum, Avi! Broder!

31. Og sem þeir hofdu jardad hann, þa sagde hann til sinna Sona, Pa eg andast, þa skulud þier jarda mig j þessare Grøf, sem þesse Guds Madur er grafenn j, og legged mijn Bein hiaa hans Beinum.

32. Pvi þad mun skie sem hann hefur hroopad fyrer DROTTins Ord, mote Alltarenu j BethEl, og jmote ollum Hwsum Hædanna, sem ad eru j Samarie Borgum.

33. Jeroboam snere sier ecke fra sijnum vondum Vegum epter þetta skied, helldur spillte hann sier, og giorde aptur Presta a Hædernar, af þeim minnstu hvattar Monnum medal Folksins, og hvor sem ad honum þocknadest, þess Hond fyllte hann, og sa vard Prestur a Hædonum.

34. Og þetta vard Jeroboams Hwse til Syndar, so ad hann fordiarfadest, og vard afmaadur af Jordunne.

# XIV. Capitule.

(I) Um Jeroboams Stiorn, og (II) Roboams.

I. A þeim Tijma vard Abia, Sonur Jeroboam, siukur.

2. Og Jeroboam sagde til sinnar Kvinnu, Tak þig upp, og breit þijnum Buninge, so ad eingenn merke ad þu siert Jeroboams Kvinna, og far burt til Silo. Sioa, þar er Ahia Spaamadur, sem sagde mier fyrer, ad eg skyllde verda Kongur yfer þessu Folke.

3. Og tak Tiju Braud, og Kokur, med þier, og eina Krws med Hunang, og gack til hans, ad hann seige þier, hvornenn ganga mune Sveinenum.

4. Og Jeroboams Kvinna giorde so, bio sig til, og gieck burt til Silo, og kom j Hws Ahia. Enn Ahia kunne ecke ad sia, þvi hans Augu voru dimm af Elle.

5. Enn DROTTinn sagde til Ahia, Sioa, Jeroboams Husfru kiemur, ad hun spyrie þig nockurs hlutar um sinn Son, þvi hann er siukur. Par fyrer tala vid hana so og so.

6. Enn sem hun kom nu jnn, liet hun sem være hun onnur enn var. Og er Ahia heyrde þytenn hennar Foota, ganganda jnn um Dyrnar, þa sagde hann, Kom hier jnn þu Jeroboams Kvinna! þvi villt þu dyliast so sem okunnug? Eg er sendur til þijn Eirn Hardur Sendebode.

7. Far þu og seig til Jeroboam, So seiger DROTTinn Gud Israels, Eg hefe upphafed

hafed þig af Folkenu, og sette þig Hofdingia yfer mit Folk Jsrael.

8. Og Eg sleit Kongsrijked fra Davids Hwse, og gaf þier það. Enn þu hefur ecke vered so sem minn Þienare David, hvor ad hiellt mijn Bod, og gieck epter mier af ollu Hiarta, giorande alleina hvad mier var þægelegt.

9. Enn þu hefur giort jlla framm yfer alla þa sem vered hafa fyrer þig. Þu foorst og giorder þier annarlega Gude, og steyptar Minder, ad reita mig þar med til Reide, og kastader mier so a bak þier aptur.

10. Sioa, þar fyrer vil Eg leida Olucku yfer Jeroboams Hws, og upprœta af Jeroboam jafnvel þann sem pissar j Vegg, þann jnnelukta og yfergiefna j Jsrael. Og Eg vil burt soopa Epterkomendum Jeroboams Hws, so sem þa Madur burtu soopar Oklœrende, þar til það er aldeilis wte um hann.

11. Hvor sem deyr j Stadnum af Jeroboam þann skulu Hundar upp eta, Enn hvor sem deyr wt a Akre þann skulu Fuglar Himensins upp eta, þvi DROTTinn hefur talad þetta.

12. So tak þig nu upp, og gack heim. Og þa þinn Footur stijgur jnnann Borgar, þa mun Barned deya.

13. Og allur Jsrael skal grœta hann. Og þeir munu grafa hann, þviad alleina þesse af Jeroboam skal groft odlast, sokum þess, ad þar hefur nockurt gott fundest med honum, fyrer DROTTne Jsraels Gude, j Jeroboams Hwse.

14. DROTTinn mun uppvekia sier eirn Koung yfer Jsrael, hann skal afmaa Jeroboams Hws a þeim Deige. Og hvad er nu giort?

15. DROTTinn skal slaa Jsrael, lijka sem Reir hrærest j Vatne, og hann skal upprœta Jsrael af þessu gooda Lande, sem hann gaf þeirra Fedrum, og hann mun burt dreifa þeim yferum Vatned, sokum þess, ad þeir giordu sier Lunda, ad styggia DRottinn þar med:

16. Og hann mun yfergiefa Jsrael fyrer Jeroboams Synda saker, sem syndgadest, og kom Jsrael til ad syndgast.

17. Og Jeroboams Hwsfru stood upp, gieck burt, og kom til Thirza. Enn sem hun stie yfer Proskolldenn Hwssins þa andadest Sveirnenn.

18. Og þeir jordudu hann, og allur Jsrael griet hann, epter DROTTins Orde, sem hann hafde mællt fyrer sinn Þienara, Ahia Spaamann.

19. Hvad meira er ad seigia um Jeroboam, Hvornen̄ hann bardest, og rijkte, Sioa, þad er skrifad j Jsraels Konga Chronicu.

20. Enn sa tijme sem Jeroboam rijkte var Tvo og Tuttugu Aar, og hann sofnade med sijnum Fedrum, og hans Son, Nadab, vard Kongur j hans stad.

II. 21. So var Roboam, Son Salomons, Kongur j Juda. Roboam var Fiorutijge Aara gamall þa hann vard Kongur, og rijkte Seytian Aar j Jerusalem Borg, hvoria ed DROTTinn wtvalde af ollum Jsraels Ættum, ad hann villde þar setia sitt Nafn. Hans Moder hiet Naema, ein Ammonitisk (Kvinna).

22. Og Juda giorde þad sem DROttne jlla lijkade, og þeir uppvoktu hann meir til Vandlætis enn aller þeirra Forfedur hofdu giort, med þeirra Syndum sem þeir giordu.

23. Þvi þeir uppbiggdu sier og so Hæder, Stoolpa, og Lunda, a ollum Haafum Hædum, og under ollum bloomgudum Triaam.

24. Þar voru og Saurlifnadarmenn̄ j Landenu, og þeir fromdu allra Heidingia Svijvirdingar, hvoria ad DROTTinn hafde wtrymt fyrer Jsraels Bornum.

25. Enn a þvi Fimmta Aare Roboam Kongs, þa foor Sisak, Egyptalands Kongur, upp a moote Jerusalem.

26. Og tok Fiaarsiodina wr DROttins Hwse, og wr Kongsins Hwse, og allt þad sem þar var ad taka, og hann took alla þa

Gull-

Gullskiolldu, sem Salomon hafde lɶated giora.

27. J hvorra stad Kong Roboam liet giora Eirskiolldu, og fieck þa j Hendur þeim ɶdstu Hirdmonnum, sem geymdu Dyrnar a Kongsins Hwse.

28. Og so opt sem Kongurenn gieck j DROTTins Hws, þa bâru Hirdmennerner þa, og bâru þa sijdann aptur j Hirdmanna Herberged.

29. Hvad sem meira er ad seigia um Roboam, og allt þad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

30. Og ætijd var þar Strijd millum Roboam og Jeroboam, a medan þeir lifdu.

31. Og Roboam sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur j Davids Borg, hia sijnum Fedrum. Hans Moder hiet Naema, Ammonitisk. Og Abiam, hans Son, vard Kongur j þans stad.

## XV. Capitule.

Um Rijkes Stiorn (I) Abiæ, og (II) Asæ Konunga i Juda: it: Jsraels Konunga; (III) Nadabs, og (IV) Baesa.

I. A þvi aatianda Aare Jeroboam Kongs, sonar Nebat, vard Abiam Kongur j Juda.

2. Og hann rijkte þriu Aar i Jerusalem. Hans Moder hiet Maecha, Dotter Abisalom.

3. Og hann gieck j øllum sijns Fødurs Syndum, sem hann hafde giørt fyrer hønum. Og hans Hiarta var ecke riettskickad fyrer DROTTne hans Gude, so sem Davids hans Fødurs Hiarta.

4. Enn DROTTinn hans Gud gaf hønum Lioos j Jerusalem, vegna Davids, ad hann uppvekte hans son epter hann, og vid hiellde hønum j Jerusalem.

5. Sokum þess, ad David giorde þad sem DROTTne vel þocknadest, og veik ecke fra øllu þvi sem hann baud hønum, alla hans Lijfdaga, Frateknum Malum Uria Hethei.

6. Og þar var Ofridur j millum Roboam og Jeroboams alla þeirra Lijfdaga.

7. Enn þad fleyra sem seigia maa um Abiam, og allt þad sem hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu. Og þar var Ofridur a millum Abiam og Jeroboam.

8. Og Abiam sofnade med sijnum Forfedrum, og þeir groofu hann j Davids Borg. Enn Asa, hans son, vard Kongur j hans stad.

II. 9. Þa Jeroboam hafde vered Kongur yfer Jsrael j Tuttugu Aar, vard Asa Kongur j Juda.

10. Og hann rijkte Eitt Aar og Fiorutijge j Jerusalem. Hans Moder hiet Maecha, Dotter Abisalom.

11. Og Asa giørde þad sem DROTTne vel lijkade, so sem hans Fader David.

12. Og hann burt rymde Hoorunar Menn vor Landenu, og took af øll Skwrgod, sem hans Fedur høfdu giort.

13. Auk þess affsette hann sijna Modur Maecha ad vera Drottning, af þvi hun hafde giort (a) Miplezeth j Lundenum, og Asa upprætte hennar Miplezeth, og uppbrennde hann j Lækunum Kedron.

(a) (Miplezeth) Hvad fyrer Afgud þetta Miplezeth vered hefur. vita Menn ecke, Sumer meina þad hafe vered Skwrgod Priapus.

14. Enn þeir tooku ei Hædernar j burt. Þo var Asa Hiarta riettelegt fyrer Gude um alla hans Daga.

15. Og þad Gull og Silfur, og Kier, sem hans Fader hafde helgad, og hvad sem helgad var til DROTTins Hwss, þad færde hann jnn.

16. Og þar var Ofridur j millum Asa, og Baesa, Jsraels Kongs, alla þeirra Daga.

17. Enn Baesa, Jsraels Kongur, foor upp a moote Juda, og biggde Rama, so ad eingenn skyllde komast hvorke wt nie jnn af sijdu Asa, Juda Kongs.

 18. Þa

18. Þa took Asa allt þad Gull og Silfur sem epter var orded af Fioarsioodum j Hwse DROTTins, og af Fioarsioodunum j Kongsins Hwse, og fieck siijnum Sveinum þad j Hendur, og sende þa til Benhadad, sonar Thabrimon, sonar Hesion, Kongsins j Syria, sem bioo j Damasco, og liet seigia honum.

19. Þar er eirn Saattmaale millum mijn og þijn, a millum mijns Fodurs og þijns Fodurs. Og þvi sende eg þier eina Gaafu, Silfur og Gull, ad þu bregder upp þeim Saattmaala, sem þu hefur med Israels Kong Baesa, so hann burtu fare fraa mier.

20. Benhadad hlydde Asa Konge, og sende siijna Hofudsmenn j moote Israels Borgum, og sloo Ijon og Dan, og Abel Beth Maecha, allt Cineroth, j ollu Nephthali Lande.

21. Enn sem Baesa þad heyrde þa liet hann af ad biggia Rama, og foor aptur til Thirza.

22. Siidann liet Kong Asa wthroopa um allann Juda, Hier skal eingenn vera frij. Og þeir tooku Steinana og Trien j burt fra Rama, sem Baesa hafde biggt med, Og Kong Asa biggde þar med Geba BenJamin, og Mizpa.

23. Hvad meira er ad seigia af Asa, og um alla hans Magt, og allt þad hann giorde, og þeir Stader sem hann biggde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu, Utann þad hann vard siukur j siijnum Footum j sinne Elle.

24. Og Asa sofnade burt med siijnum Forfedrum, og var Jardadur med siijnum Fedrum, j siijns Fodurs Davids stad, og hans sonur Josaphat took Kongdom j hans stad.

III. 25. Og Nadab, son Jeroboam, vard Kongur yfer Israel, a þvi ödru Aare Asa Juda Kongs, Og hann rijkte yfer Israel j Tvo Aar.

26. Og hann giorde þad sem DROttne jlla lijkade, og foor Ferel siijns Fodurs, og j hans Syndum, med hvorium hann kom Israel til ad syndgast.

27. Enn Baesa, sonur Ahia, af Isaschars Hwse, giorde eitt Samband a moote honum, og sloo hann j Gibethon, sem ad heyrde til þeim Philisteis, þviad Nadab og allur Israel sat þa um Gibethon.

28. So sloo Baesa hann j Hel, a þvi þridia Aare, epter þad ad Asa vard Kongur j Juda, og vard so Kongur j hans stad.

29. Enn sem hann var ordenn Kongur þa sloo hann giorvallt Jeroboams Hws j Hel, og liet eckert epter lifa af Jeroboam, þad sem Anda hafde, þar til hann hafde eydelagt hans, epter DROTTins Orde, sem hann hafde talad fyrer Ahia sinn Þienara af Silo.

30. Sokum Jeroboams Synda, þeirra sem hann giorde, og med hvorium hann kom Israel til ad syndgast, fyrer þa Til-reitne, med hvorre hann styggde DROTTinn Israelis Gud.

31. Enn hvad meira er ad seigia um Nadab, og allt þad sem hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Israelis Konga Chronicu.

32. Og þar var Ofridur millum Asa, og Baesa, Israelis Kongs, a ollum þeirra Dogum.

IV. 33. A þvi þridia aare Asa Juda Kongs, var Baesa, Son Ahia, Kongur yfer allann Israel, j Thirza, j Fiogur og Tuttugu aar.

34. Og hann giorde þad sem DROttne jlla lijkade, og gieck j Jeroboams Vegum, og hans Syndum, med hvorium ad hann kom Israel til ad syndgast.

XVI. Cap. 1. Og Ord DROttins kom til Jehu, Sonar Hanani, mote Baesa, og sagde.

2 Sokum þess, ad Eg hef upphafed þig af Dupte, og sette þig Hofdingia yfer mitt Folk Israel, og þu giecksta Jeroboams Vegum, og komst mijnu Folke til ad syndgast, ad þu styggder Mig med þeirra Syndum.

3. Sioa, þa vil Eg burt taka Epterkomendur Baesa, og hans Hwss Epterkomendur, og Eg vil setia þitt Hws lijka sem Hws Jeroboam, Sonar Nebat.

4. Hvor

4. Hvor sem deyr af Baesa j Stadnum, þann skulu Hundar upp eta, enn hvor sem deyr af hans vot a Mörkenne, þann skulu Himensins Fuglar upp eta.

5. Hvad sem meira er ad seigia um Baesa, og hvad hann giorde, og hans Magt, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

6. Baesa sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur j Thirza. Og hans Son Ella vard Kongur j hans Stad.

7. Og DROttins Ord kom fyrer Jehu Spaamann, Son Hanani, yfer Baesa, og yfer hans Hwos, og a mote öllu þvi Vondu sem hann giorde fyrer DROTTne, ad styggia hann fyrer sijn Handaverk, ad hann skyllde verda sem Jeroboams Hwos, og þar fyrer, ad hann sloo hann jhel.

## XVI. Capitule.

Her talast um nockra Israels Konga; (I) Ella; (II) Simri; (III) Amri; (IV) Achab. (V) Jericho er biggd.

I. 8. A þvi Siotta og Tuttugasta aare Asa Juda Kongs, vard Ella, Sonur Baesa, Kongur yfer Israel, j Thirza, Tvo aar.

9. Og hans Þienare, Simei Hofuds Madur yfer Helminge af hans Vognum, giorde Samband jmote hönum. Og hann var j Thirza, drack og vard druckenn j Hwose Arza, sem var Fogvite j Thirza.

10. Og Simri kom þar jnn, og sloo hann jhel, a þvi Siounda og Tuttugasta aare Asa, Kongs Juda, og vard Kongur j hans Stad.

11. Enn sem hann var Kongur, og sat j sijnum Stool, þa sloo hann allt Baesa Hwos, og liet ongvann lifa, þann sem pissar j Vegg, hvor til hans Erfingia, og hans Frændur.

12. So eydelagde Simri Baesa Hwos alltsamann, epter Orde DROTTins, sem hann talad hafde yfer Baesa, fyrer Jehu Spaamann.

13. Fyrer saker allra Synda Baesa, og hans Sonar Ella, sem þeir frömdu, og komu Israel til ad syndgast, til ad styggia DROTTinn Israels GUD, med þeirra Afguda Dijrdkan.

14. Enn hvad meira er ad seigia um Ella, og allt þad hann giorde, sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

II. 15. A þvi Siounda og Tuttugasta aare Asa Juda Kongs vard Simri Kongur j Thirza, j Sio Daga. Þvi Israels Folk sat um Gibethon Philisteanna.

16. Enn sem Folked j Herbudonum heyrde þad, ad Simri hafde giort Samband, og sleiged Kongenn jhel, þa giorde allur Israel, a þeim sama Deige, Amri Strijdshofudsmann til Kongs yfer Israel, j Herbwdonum.

17. Og Amri for upp, og allur Israel med hönum, fra Gibethon, og settest um Thirza.

18. Enn sem Simri sa þad, ad þeir mundu vinna Stadenn, þa gieck hann j Hollena, j Kongsins Hwose, og uppbrennde sig sialfann med Kongsins Hwose.

19. Og doo fyrer sijnar Synder, sem hann hafde giort, ad hann giorde þad sem Drottne jlla lijkade, og gieck a Jeroboams Vegum, og j hans Syndum, sem hann giorde, og kom Israel til ad syndgast.

20. Enn hvad meira er ad seigia um Simri, og hvornenn hann giorde eitt Samband, sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

21. J þann Tijma skipte Israel sier j Tvenna Flocka, Helmingur Folksins epterfilgde Thibni, Syne Ginath, so þeir giordu hann ad Konge, enn sa annar Helmingur hiellt med Amri.

22. Enn þad Folk sem filgde Amri vard Afla-meira enn þad Folk sem filgde Thibni, Syne Ginath, og Thibni deyde, enn Amri vard Kongur.

III. 23. A þvi Ellefta og Tuttugasta aare Asa Juda Kongs vard Amri Kongur yfer Israel

Israel j Tolf ꝏr, og rijkte j Thirza j Sex ꝏr.

24. Hann keypte þad Fiall Samaria af Semer, fyrer Tvo Centener Silfurs, og biggde uppa Fiallenu, og kallade þa Borg sem hann reiste epter Semers Nafne, sem var Herra yfer þvi Fialle Samaria.

25. Og Amri giorde þad sem DROttne illa lijkade, og var verre enn aller þeir sem voru fyrer hann.

26. Og gieck j øllum Jeroboams Vegum, Sonar Nebat, og j hans Syndum, med hvorium ad hann kom Israel til ad syndgast, ad þeir styggdu DROTTinn Gud Israels med þeirra Afgudadijrdkan.

27, Enn hvad meira er ad seigia um Amri, og allt þad hann giorde, og hans Magt sem hann framde, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

28. Og Amri sofnade med sijnum Fedrum og var jardadur j Samaria, og hans Son Achab vard Kongur j hans Stad.

IV. 29. A þvi ꝏttunda og Pritugasta ꝏre Asa Juda Kongs vard Achab, Son Amri, Kongur yfer Israel, og rijkte yfer Israel j Samaria Tvo og Tuttugu ꝏr.

30. Og giorde þad sem DROTTni illa lijkade, framm yfer alla þa sem vered høfdu fyrer hann.

31. Hann liet sier eige nægia, ad hann gieck j Syndum Jeroboam Sonar Nebats, þar til tok hann Jesabel, Dottur EthBaals, Kongs af Zidon, sier til Eigenukvinnu. Og hann for ad þiona Baal, og tilbad hann.

32. Og reiste Baal eitt Alltare j Baals Hwse, hvort hann biggde honum j Samaria.

33. Og giorde eirn Lund, so ad Achab giorde framar meir ad reita og styggia DROTTinn Israels Gud, enn aller adrer Israels Kongar, þeir sem vered høfdu fyrer hann.

V. 34. A þessum sama Tijma biggde Hiel af BethEl Jericho, og þad kostade hans hinn firsta Son Abiram, þa hann lagde Grundvollenn, og hans yngsta Son Segub, þa hann sette Portenn, epter * DROTTins Orde, sem hann hafde talad, fyrer Josua, Son Nun. * Jos. 6, 26.

# XVII. Capitule.

*Prophetenn Elias fær (I) Fædu af Hrofnum; og (II) Hus hioa einne Fatækre Eckiu.*

I. Og Elias Thesbiter, eirn af Borgarmonnum Gileads, sagde til Achab, So Sannarlega sem DROttinn Israels Gud lifer, fyrer hvorium eg stend, þa skal þar * hvorke koma Dogg nie Regn j þesse Aar, nema eg seige þad.

* Luc. 4, 25. Jac. 5, 17.

2. Og Ord DROTTins kom til hans og sagde.

3. Far burt hiedann, og snw þier j mote Austre, og fel þig hioa þeim Læk Crith, sem rennur jmot Jordan.

4. Og þu skallt drecka af Læknum, enn Eg hefe boded Hrofnonum, ad þeir skulu þar forsorga þig.

5. Og hann gieck af Stad, og giorde epter Orde DROttins, og for þangad, og sette sig hioa Læknum Crith, sem fellur ad Jordan.

6. Og Hrafnar færdu honum Braud, og Kiot, bæde Morgna og Kvolld, og hann drack af Læknum.

II. 7. Og þad skiede so, nockrum Døgum, þar epter, ad Lækurenn þornade upp, þviad eckert Regn var j Landenu.

8. Þa kom DROttins Ord til hans, og sagde.

9. Statt upp, og gack til Zarepta, sem liggur hioa Zidon, og vert þar, þvi eg hefe boded þar eirnre Eckiu, ad hun skal fæda þig.

10. Og hann stod upp, og gieck til Zarepta. Og sem hann kom ad Stadarportenu, Sioa, þa var þar ein Eckia, og var ad safna sier (Brenne) Vid upp. Og hann kallade

kallade til hennar, og sagde, Sæk þu mier lijted Vatn j Kiere, so eg meige drecka.

11. Enn sem hun for ad sækia þad, kallade hann hana, og sagde, Fær mier og eirn Munnbita Brauds med.

12. Enn hun svarade, So sannarlega sem DROTTinn þinn GUD lifer, þa hefe eg eckert bakad, utann Miøl, so miked sem hafa maa j hnefa sier j Ead, og lited Vidsmior j Krwos, og siaa, eg hefe samann tijnt eitt Trie eda Tvo, og fer eg nu jnn, ad bwa þetta til Matar fyrer mig og minn Son, so ad vid meigum eta og deya.

13. Elias sagde til hennar, Ottast ecke, far þu og giør þad sem þu sagder, enn allt ad einu baka þu mier þo first lijted þar af, og fær mier þad wt hingad, epter þad skalltu giøra þier og þijnum Syne.

14. Þviad so seiger DROTTinn Israelis GUD, Miøled j Ead skal ecke fortærast, og j Oliu Krwsena skal ecke vanta, allt til þess Dags ad DROTTinn skal laata rigna a Jordena.

15. Hun gieck j burt, og giorde so sem Elias sagde, og hann aat, og hun, og hennar Hyske, um nockra Tijma.

16. Miøled j Ead fortærdest ecke, og Vidsmiored j Krwsenne vantade ecke, epter Ordum DROTTins, sem hann talade fyrer Eliam.

17. Epter þetta skied syktest Sonur þessarar Konu, sem hann giste hiaa, og hans Siukdomur vard so miøg strangur, ad eingenn Ande var j honum framar meir.

18. Og hun sagde til Eliam, Hvad hefe eg med þig þu Guds Madur? þu ert komenn hier jnn til mijn, ad minna Misgiorda verde minnst, og minn Sonur yrde deyddur.

19. Hann sagde til hennar, Fær mier hingad þinn Son. Og hann tok hann af hennar Skaute, gieck upp a þann Sal sem hann bio, og lagde hann j sijna Sæng,

20. Akallade DROTTinn, og sagde, DROTTinn minn GUD! hefur þu og so hriggt þessa Eckiu, hvorrar Giestur eg er, ad þu jhelslær hennar Son?

21. Og hann breidde sig þriar reisur ofann yfer Sveinenn, og kallade til DROTTins, og sagde, DROTTinn Minn Gud! Laat þessa Barns Ønd koma til þess aptur.

22. Og DROTTinn heyrde Raust Elia, so ad Barnsins Ønd kom aptur til þess, og þad vard lifande.

23. Og Elias took Barned, og bar þad ofann af Salnum, j Hwsed, Og fieck þad hans Modur, og sagde, Siaa þar, þinn Sonur lifer.

24. Og Kvinnann sagde til Eliam, Nu veit eg, ad þu ert eirn Guds Madur, og Ord DROttins j þijnum Munne er Sannleikur.

## XVIII. Capitule.

*Elias talar (I) til Achabs; (II) til Israels Folks, og (III) til Baals Propheta.*

I. Og løngum Tijma þar epter þa kom Ord DROTTins til Eliam, a þui þridia Aare, og sagde, Far þu og syn þig Achab, so eg laate rigna yfer Jordina,

2. Og Elias foor af stad, ad hann liete Achab siaa sig, Og þar var miked Hallære j Samaria.

3. Og Achab kallade Abdias, sinn' Hofgards Meistara, til sijn: Enn Abdias ottadest hardla miøg DROTTinn,

4. Þviad þann Tijma sem Jesabel foreydde DROTTins Spaamønnum, þa took Abdias Hundrad Spaamenn, og geymde þa j Hellerum, hier Fimmtijge, og þar Fimmtijge, og forsorgade þa med Braude og Vatne).

5. So sagde nu Achab til Abdias, Reistu j giegnum Landed til allra rennande Brunna og Lækia, ef vier mættum finna Hey ad vidhallda Hestum og Mwlum, so ad Kvikfienadurenn deye ei allur.

6. Og þeir skiptu sier wt um Landed, ad þeir fære j giegnum þad: Achab foor alleina

eirn Veg, og Abdias alleina þann annann Vegenn.

7. Enn sem Abdias var nu a Veg komenn, Sioa, þa mætte Elias honum, Og sem hann þeckte hann, þa fiell hann framm a sijna Asionu, og sagde, Ert þu ecke minn Herra Elias?

8. Hann sagde, Joa, Far og seig þijnum Herra, Sioa, Elias er hier.

9. Hann svarade, Hvad hef eg misgiört, ad þu villt giefa þinn Pienara j Hendur Achabs, so hann skule sloa mig j Hel?

10. So sannarlega sem DROTTinn þinn Gud lifer, þa er þar eckert Folk, eda Konungs Rijke, til hvors ad minn Herra hefur eige sendt Bod, ad leita epter þier. Og þa þeir søgdu, Hann er ecke hier, þa took hann eirn Eid af þvi Kongsrijke og Folke, ad Menn hefdu ecke funded þig.

11. Enn nu seiger þu, Far af stad og seig þijnum Herra, Sioa, Elias er hier.

12. Geinge eg nu j burtu froa þier, so tæke DROTTins Ande þig j burtu, eg veit ecke hvort, Og eg kiæme þa og undervijsade þad Achab, og finde þig þa ecke, þa slæge hann mig j Hel. Enn þinn Pienare oottast DROttinn froa sijnum Barndome.

13. Er þad ecke heyrum kunnugt orded mijnum Herra, hvad eg giorde, þa Jesabel drap DROTTins Spoamenn? Ad eg falde Hundrad af DROTTins Spoamonnum, hier Fimmtijge, og þar Fimmtijge j Hellerum, og eg fædde þa med Braude og Vatne.

14. Og þu seiger nu, Far þu og seig þijnum Herra, Elias er hier, so ad hann sloae mig j hel?

15. Elias sagde, So sannarlega sem DROTTinn Zebaoth lifer, fyrer hvorium eg stend, eg vil loata mig sioa j Dag fyrer honum.

16. Pa gieck Abdias burt j moots vid Achab, og undervijsade honum þetta. Og Achab gieck j moote Elia.

17. Og þa Achab soa Eliam, mællte Achab til hans, Ert þu sa sem ad sturlar Jsrael?

18. Hann svarade, Eige sturla eg Jsrael, helldur þu, og þijns Fodurs Hws, þar med, ad þier forlietud DROTTins Bodord, og geingud epter Baal.

19. Nu vel, Send þu nu wt og loat samansafna øllum Jsrael til mijn, og þeim Fiorum Hundrudum og Fimmtijge Baals Prophetum, uppa Fialled Charmel, og þeim Fiorum Hundrudum Lundanna Spoamonnum, sem eta af Jesabels Borde.

20. So sende Achab wt a medal allra Jsraels Barna og samansafnade Spoamonnonum uppa Fialled Charmel.

II. 21. Pa gieck Elias framm til alls Folksins, og sagde, Hvorsu leinge halltred þier a boadar Sijdur? Sie DROTTinn Gud, þa epterfilged honum, Enn sie Baal þad, þa ganged epter honum. Enn Folked svarade honum ongvo.

22. Pa sagde Elias til Folksins, Eg er nu alleina ordenn epter eirn Spoamadur DROttins, Enn Baals Spoamenn eru Fiogur Hundrud og Fimmtijge Manna.

23. Foaed oss nu Tvo Uxa, og loated þa wtvelia þann eina Uxann, og hoggva hann j Sticke, og leggia hann a Videnn, og loata ongvann Elld þar ad, So vil eg taka annann Uxann, og leggia hann uppa Vidinn, og eige helldur leggia þar Elld ad.

24. Sijdann akalled þier ydars Guds Nafn, og eg vil kalla a Nafn DROTTins. Og hvor sa Gud, sem nu svarar fyrer Elldenn, sa skal vera Gud. Og allt Folked svarade og sagde, Pad er riett.

III. 25. Og Elias sagde til Baals Spoamanna, Utvelied ydur nu eirn Uxa, og giored þad fyrre, þvi þier erud marger, og kalled a ydars Guds Nafn, og legged ongvann Elld þar ad.

26. Og þeir tooku þann Uxa sem hann fieck þeim, og biuggu hann til, og kølludu oa Baals Nafn, fra Morgne og jnn til Middags, og søgdu, Baal Bænheyr oss! Enn þar

þar var hvorke (nockur) Raust nie Svar, Og þeir (a) holltrudu um kring Alltared, þad þeir høfdu giort.

(a) (Holltrudu) edur hoppudu, þeir Falsheilogu, þa þeir vilia vera gudleger, kasta þeir Høfdenu a bædar Siidur, so sem ein Giæs geingur, svo þad synest so sem þeir halltre a bædar Siidur, þar þeir vanka hingad og þangad.

27. Enn sem komenn var Middagur, þa spottade Elias þa, og sagde, Kalled hætt, þvi hann er eirn Gud, hann hefur nockud ad hugsa, eda giora, eda hann er farenn heimann, edur kannskie hann sofe, so ad hann vakne.

28. Og þeir kølludu hætt, og særdu sig med Hnijfum, og Olum, sem Sidur var þeirra til, þar til ad þar kom Blood ut epter.

29. Enn sem Middagurenn var nu lidenn, þa spaadu þeir, þar til ad Matoffurs Tijme var komenn, og þar var einginn Raust, nie Svar, eda nockur sem Gaumgiæfde.

30. Pa sagde Elias til alls Folksins, Komed, allt Folked, hingad til mijn. Og sem allt Folked kom til hans, þa bætte hann upp þad DROTTins Alltare sem nidur var broted,

31. Og took Tolf Steina, epter Ættartolu Jacobs Barna (til hvors ad DROttins Ord skiede, og sagde, Pu skallt kallast Israel).

32. Og hann biggde eitt Alltare j Nafne DROTTins, af þeim Steinum, Og hann giorde eina Grøf kringum Alltared, so vijda sem er tveggia Kornmæla rwm.

33. Og tilbioo Vidinn, og sundrade Uxann j Sticke, og lagde hann ofann a Videnn,

34. Og sagde, Sækid fiogur Cad full med Vatn, og ausid yfer Brenneforrnena, og yfer Videnn. Og hann sagde, Gioᶉed þad enn annad sinn. Og þeir giordu so j annad sinn. Og hann sagde, Giored þad enn j þridia sinne. Og þeir giordu so j þridia sinn.

35. So ad Vatned rann j kringum Alltared, og Grøfinn vard og full af Vatnenu.

36. Og þegar Tijme var komenn ad offra Matoffre, þa gieck Elias Spaamadur framm, og sagde, DROTTinn, Abrahams, Isaacs og Israels Gud! Laat þad j Dag kunnugt verda, ad Pu ert Gud j Israel, og eg þinn Pienare, og ad eg hafe allt þetta giort, epter þijnu Orde,

37. Bænheyr mig DROttinn, Bænheyr mig, so ad þetta Folk meige vita, ad þu DROttinn ert Gud, og ad þu hier epter umsnwer þeirra Hiortum!

38. Pa fiell Elldur DROttins nidur, og fortærde Brenneoffrinu, Vidnum, Steinunum, og Jordunne, og sleikte Vatned af Grøfinne.

39. Enn sem allt Folked saa þetta, fiell þad nidur a sijnar Asionur, og sagde, DROTTinn er Gud! DROTTinn er Gud!

40. Pa sagde Elias til þeirra, Hondled Baals Spaamenn, so ad eingenn af þeim komist undann. Og þeir hondludu þa. Og Elias færde þa ofann til Lækiarins Kison, og slaatrade þeim þar.

41. Og Elias sagde til Achab, Far þu upp, et og dreck, þvi þad þytur sem miked Regn villde koma,

42. Enn sem Achab foor upp, ad eta og drecka, þa gieck Elias efst uppa Charmel, og beigde sig til Jardar, og sette sitt Høfud a millum sinna Knia,

43. Og hann sagde til sijns Pienara, Gack upp, og horf j Haf vot. Hann gieck upp, og hugde ad, og sagde, Par er eckert (ad siaa). Hann sagde, Gack j burt aptur sio sinnum.

44. Og j siounda sinne sagde hann, Siaa, þar geingur eitt lijtid Skij upp vor Hafinu, lijka sem eins Manns Hond. Hann sagde, Far upp, og seig þu Achab, Spenn þu fyrer (þinn Vagn) og far ofann, so ad Regnid falle ecke uppa þig.

45. Og aadur enn Menn varde, vard Himinenn dimmur af Skijum og Vedre, og þar kom eitt aakaft Regn. Enn Achab foor, og ferdadist til Jesreel,

46. Og Hond DROTTins kom yfer Eliam, og hann gyrdte sig um sijnar Lendar, og hliop framm undann Achab, þar til hann kom j Jesreel.

## XIX. Capitule.

Elias (I) flijr fyrer Jesabel, og (II) kemur til Guds Fialls Horeb, hvar DRottenn skipar hønum (III) ad smyria Konunga, og (IV) ad kalla Einn Propheta j sinn Stad.

I. Og Achab sagde Jesabel alla þa Hlute sem Elias hafde giort, og hvornenn hann hafde dreped alla Baals Spaamenn med Sverde.

2. Þa sende Jesabel eitt Bod til Eliam, og liet seigia hønum, Guderner giore mier þad og þad, ef eg giore ei a Morgun þennann Tijma þijna Saal lijka sem eina af þeirra Saalum.

3. Enn sem hann saa þad, (a) bioo hann sig, og gieck burt, þangad sem hann villde, og kom til BerSeba j Juda, og liet sinn Pienara þar epter vera.

(a) (Bioo hann sig) Sumer lesa, Þa ottadest Elias.

4. Enn hann gieck burt j Eydemorkena, eina Dagleid, og kom þar jnn, og sette sig under eitt Eineber Trie, og bad, ad sijn Saal mætte deya, og sagde, Pad er noog Svo tak nu mijna Saal, DRottinn! Eige em eg betre enn mijner Forfedur.

5. Og hann lagde sig under Eineber Tried, og sofnade. Og sia, Eingellenn hrærde vid hann, og sagde til hans, Statt upp, og snæd.

6. Og hann leit kringum sig, og sia, þar laa eitt steikt Braud hiaa hans Hofde, og ein Kanna med Vatn. Og sem hann hafde eted og drucked, þa lagde hann sig aptur ad sofa.

7. Og Eingell DROTTins kom aptur j annad Sinn, og tok a hønum, og sagde, Statt þu upp, og snæd, þviad þu aatt langann Veg fyrer Høndum.

II. 8. Og hann stod upp, aat og drack, og gieck j Krapte þeirrar Fædu Fiorutijge Daga, og Fiorutijge Nætta, allt til Guds Fialls Horeb.

9. Og hann kom þar jnn j eirn Heller, og var þar um Nottena. Og sia, Ord DROTTins kom til hans, og sagde til hans, Hvad giorer þu hier, Elia?

10. Hann sagde, Eg hefe vandlætt vegna DROTTins Guds Zebaoth, þviad Israels Born hafa yfergiefed þinn Saattmaala, og * nidur broted þijn Alltare, og sleiged þijna Spaamenn jhel med Sverde, og eg er alleina epter ordenn, og þeir sitia um ad taka mig af Lijfe. * Rom. 11, 3.

11. Hann sagde, Far þu vt hiedann, og gack fyrer DROTTinn, upp a Fialled, og sia, ad DROTTinn gieck framm hiaa, og eitt miked og sterkt Vedur, hvort ed Fiollenn klauf, og Bergenn braut j sundur fyrer DROTTne, enn DROTTinn var ecke j Vedrenu. Epter Vedred kom eirn Jardskiaalfte. Enn DROTTinn var ecke j Jardskiaalftanum.

12. Enn epter Jardskiaalftann kom eirn Elldur, enn DROTTinn var ecke j Elldenum, og epter Elldenn kom þar eirn Hægur og miukur Vindblær.

13. Enn sem Elias þad heyrde, þa skyllde hann sijnu Andlite med sinne Kaapu, og gieck vt og steig framm j Dyrnar a Hellernum, og sia, þar kom ein Raust til hans og sagde, Hvad giorer þu hier, Elia?

14. Hann sagde, Eg hefe vandlætt vegna DROTTins Guds Zebaoth, þvi Israels Born hafa forlaated þinn Saattmaala, nidurbroted þijn Alltare, og jhel sleiged þijna Spaamenn med Sverde, og eg einnsamann em epter ordenn, og þeir sitia um ad taka mig af lijfe.

III. 15. DROTTinn sagde til hans, Far þu aptur þinn Veg um Eydemorku, til Damascum, og gack þar jnn, og smyr Hasael til Kongs yfer Syriam.

16. Og Jehu, Son Nimsi, til Kongs yfer Israel, og Eliseum, Son Saphat, af AbelMehola, til eins Spaamanns j þinn Stad.

17. Og þad skal skie, ad hvor sem kiemst undann

undann Sverde Hasael, þann skal Jehu drepa, og hvor sem setur undann Sverde Jehu, þann skal Eliseus drepa.

18. * Og eg vil epterlaata Siø Pusund j Israel, sem ad eru øll Knie sem sig hafa ecke beigt fyrer Baal, og alla Munna sem ecke hafa kyßt hann. * Rom. 11, 4.

IV. 19. Og hann gieck þadann, og fann Eliseum, Son Saphat, hann var ad eria undann sier med Tolf Porum Uxa, og hann var sialfur a millum þeirra Tolf. Og Elias gieck til hans, og lagde sinn Møttul yfer hann.

20. Enn hann yfergaf Uxana, og rann epter Elia, og sagde, Leyf mier ad minnast vid minn Fødur og Modur, siidann vil eg epterfilgia þier. Hann svarade hønum, Far þu, og kom aptur, þvi eg hefe nockud ad giøra med þig.

21. Og hann hliop aptur fra hønum, og tok eitt par Uxa, og offrade þeim, og saud Kioted med Triaanum sem voru a Uxonum, og gaf Folkenu þad ad eta. Siidann stod hann upp, filgde Elia epter, og þionade hønum.

## XX. Capitule.

BenHadad berst (I) J Firsta, og (II) Annad Sinn vid Achab.

I. Og BenHadad, Kongur j Syria, dro samann alla sijna Magt, og þar voru Tveir og Priatijge Kongar med hønum, og Hestar, og Vagnar, og hann for upp, og settest um Samariam, og stridde jmote henne.

2. Og hann sende Bod til Achabs Israels Kongs j Borgena.

3. Og liet seigia hønum, So seiger BenHadad, Pitt Silfur og þitt Gull er mitt, og þijnar Kvinnur, og þijn bestu Børn eru og so mijn.

4. Israels Kongur svarade, og sagde, Minn Herra Kongur, So sem þu hefur sagt, Eg er þinn, og allt þad eg hefe.

5. Og Sendemenn komu aptur, og søgdu, so seiger BenHadad, Søkum þess, ad eg sende þier Bod, og liet seigia þier, Pu skallt giefa mier þitt Silfur og Gull, þijnar Kvinnur og þijn Børn,

6. Pa vil eg senda mijna Sveina til þijn a Morgun um þennann sama Tijma, ad þeir skulu rannsaka Hws þitt, og þinna Pienara, og þeir skulu taka j sijnar Hendur, þad sem þu hefur kiært, og bera þad burt.

7. Pa kallade Israels Kongur alla Landsins Ølldunga, og sagde, Hugleided og siaed, Hvad vondt hann hefur j Sinne. Hann sende Bod til mijn epter mijnum Kvinnum og Børnum, og epter mijnu Gulle og Silfre, og eg hefe ecke neitad hønum þess.

8. Pa søgdu aller þeir enu Ellstu, og allt Folked hønum, Pu skallt ecke hlyda, nie samþyckia.

9. Og hann sagde til Sendeboda BenHadad, Seiged mijnum Herra Kongenum, Allt þad sem hann baud sijnum Pienara j firstu þad vil eg giora, enn þetta kann eg ecke ad giora. Sendemenn foru og søgdu hønum þad aptur.

10. Pa sende BenHadad til hans, og liet so seigia hønum, Guderner giore mier þad og þad, ef Molldenn af Samaria skal verda so mikel, ad allt Folked, sem under mier er, kunne ad hafa þar af eirn Hremming fullann.

11. Pa svarade Israels Kongur, og sagde, Seiged, Sa ed fœrer sig j Harneskiu, hann skal ecke (a) hrosa sier, so sem hinn sem hana hefur aflagt.

(a) (Hrosa sier) þad er, Hrose ecke happe fyrrenn Hønd hefur feinged, þviad hann sem Sigurenn hefur unned leggur af sier Harneskiuna, og maa vel hrosa sier, enn hinn sem fer j Harneskiuna hefur ecke þar fyrer strax unned.

12. Enn sem BenHadad þad heyrde (þar hann sat og drack med Kongunum, j sijnum Landtiolldum) þa sagde hann til sinna Pienara, Bwed ydur til, og þeir biuggust j mote Borgenne.

13. Og Siaa, þar gieck eirn Spaamadur til Achabs, Israels Kongs, og sagde, So seiger DROTTinn, Pu hefur sied allann þennann

Ogrynne-Her? Sioa þu, a þessum Deige vil eg giefa hann j þijnar Hendur, so þu viter, ad Eg er DROTTinn.

14. Achab sagde, Fyrer hvorn? Hann svarade, So seiger DROTTinn, Fyrer Sveina Lands Fogvitanna. Hann sagde, Hvor skal Strijded vekia? Hann svarade. Þu.

15. Þa talde hann Sveina Lands Fogvitanna, og þeir voru ad Tolu Tvo Hundrud, Tveir og Þriatijger. Enn hann talde epter þa allt Folk, allra Israels Barna, Sio Þusund Menn.

16. Og þeir foru vt um midiann Dag. Enn Benhadad drack, og vard druckenn j sijnu Tiallde, med Tveimur og Þriatijge Kongum, hvorier ed komner voru honum til lids.

17. Og Lands Fogvita Sveinarner foru first vt. BenHadad sende vt, og þeir undervijsudu honum og sogdu, Þar fara Menn vt af Samaria.

18. Hann sagde, Grijped þa lifande, hvort sem þeir eru komner vt, Fridar edur Strijds vegna,

19. Enn sem Lands Fogvita Sveinarner voru komner vt, og Herenn epter þeim.

20. Sloo hvor um sig þann sem honum mætte, so ad þeir Syrlendsku flydu undann, enn Israel rak flottann epter þeim. Og Ben Hadad Kongur af Syria komst undann med Hestum og Riddorum.

21. Og Israels Kongur for vt, og sloo bæde Hesta og Vagna, og Folked med, og veitte eitt miked slag þeim Syris.

II. 22. Þa gieck eirn Spamadur til Israels Kongs, og sagde til hans, Far þu burt og stirk þig, og merk, og sioa til hvad þu gierer, þvi Kongurenn af Syria mun fara upp jmote þier þegar þetta aar er vte.

23. Þvi Kongsins Þienarar af Syria sogdu til hans, Þeirra Guder eru Fiallanna Guder, og þvi yferunnu þeir oss. Enn mættum vier beriast vid þa a Sliettlende, hvad gillder? vier skylldum sigra þa.

24. Gior nu so, Tak Kongana burt, hvorn af sijnum Stad, enn set þu Hofdingia j þeirra Stad.

25. Og nidurskicka þier eirn Her, so sem sa Her var er þu mister, og Hesta og Vagna, eins sem þeir adrer voru, og laat oss beriast a sliettlende vid þa, Hvad skal gillda? Vier vilium sigra þa. Hann hlydde þeirra Raust, og giorde so.

26. Enn sem þad aar var nu lided, skickade BenHadad Syrlendskum nidur j Ordu, og dro upp til Aphek, ad beriast vid Israel.

27. Israels Born biuggust og so, toku Vister, og fluttu Her sinn a mote þeim, og settu sinar Herbuder gagnvart þeim, þvilijkast sem Tvær litlar Geitfiaar Hiarder være, enn Syri uppfylltu Landed.

28. Þa gieck eirn Guds Madur framm, og sagde til Israels Kongs, So seiger DROTtinn, Sokum þess, ad þeir Syrlendsku hafa sagt, ad DROTTinn sie Fialla GUD, enn ecke GUD Dalanna, þvi hef eg giefed þennann mikla Fiollda i þijna Hond, so þier vited ad Eg er DROTTINN.

29. Og þeir hvorutveggiu settu nidur Herbudernar giegnt hvor odrum j Sio Daga, a þeim Siounda Deige sigu þeir samann j Strijded, og Israels Born slou Hundrad Þusund Fotgongulids, a einum Deige, af þeim Syris.

30. Enn þeir sem epter lifdu, flydu til Aphek, jnn j Stadenn. Og Muurenn fiell a þa sem undann komust, og þeir voru Sio og Tuttugu Þusund Manns. BenHadad flyde og jnn j Stadinn, fra einu Herberge og til annars.

31. Þa sogdu hans Þienarar til hans, Sioa, vier hofum heyrt, ad Israels Hwss Kongar eru Miskunsamer Kongar. Þvi laatum oss leggia Secke yferum vorar Lendar, og Bond um vor Hofud, og gongum vt fyrer Israels Kong, skie maa, ad hann laate þijna Ond lifa.

32. Og þeir gyrdtu Secke um sijnar Lendar,

dar, og Bond um Hofud sier, og komu til Jsraels Kongs, og sogdu, BenHadad þinn Þienare lætur seigia þier, Eg bid, lꜵt mijna Sꜵl hallda Lijfe. Hann sagde, lifer hann enn nu, þa er hann minn Broder.

33. Enn Menneruer toku strax þetta Ord af honum, og vtlogdu þad sier til goda, og svorudu, Jꜵ, þinn Broder BenHadad. Hann sagde, Komed og færed hann hingad: þa gieck BenHadad vt til hans, og hann liet hann sitia j Vagne.

34. Og hann sagde til hans, Eg vil giefa þier nu aptur þær Borger, sem minn Fader tok fra þijnum Fodur, og gior þier Stræte j Damasco, lijka sem minn Fader giorde j Samaria, so vil eg giora eirn Sꜵttmꜵla vid þig, og lꜵta þig fara, og hann giorde eitt Sꜵttmꜵl vid hann, og liet hann fara.

35. Pa mællte eirn Madur af Spꜵmanna Bornum til sijns Nꜵunga, fyrer DRottins Ord, Eg bid, slꜵ þu mig. Enn hann villde ecke slꜵ hann.

36. Pa sagde hann til hans, Sokum þess ad þu villder ecke hlyda Roddu DRottins, Sioa, þa skal eitt Leon slꜵ þig, nær þu geingur frꜵ mier. Og sem hann gieck frꜵ honum, fann eitt Leon hann, og drap hann.

37. Og hann fann eirn annann Mann, og sagde til hans, Eg bid, slꜵ þu mig. Og Madurenn sloo hann, og veitte honum sꜵr.

38. Pa gieck Spꜵmadurenn j burt, og kom a Veigenn fyrer Kong, og torkiende sitt Andlit med Osku.

39. Enn sem Kongurenn ferdadest þar framm um, þa kallade hann til Kongsins, og sagde, Þinn Þienare var vtfarenn midt j Strijd, og sioa, eirn Madur viek burt, og leidde eirn Mann til mijn, og sagde, Geym þu þennann Mann, enn komest hann j burtu, þa skal þijn Sꜵl vera j stadinn fyrer hans Sꜵl, ellegar skallt þu vega vt eitt Centener Silfurs þar fyrer.

40. Og þa þinn Þienare hafde nockud ad giora, hier og þar, þa var hann allur j burt. Jsraels Kongur sagde til hans, Pad er þinn Doomur, þu hefur sialfur sagt hann upp.

41. Pa strauk hann strax Oskuna af sijnu Andlite, Og Jsraels Kongur þeckte hann, ad hann var eirn af Spꜵmonnonum.

42. Og hann sagde til hans, So seiger DRottinn til hans, Sokum þess ad þu lietst þann Bolvada Mann burt fra þier (sleppa) þa skal þijn Sꜵl vera j stadenn hans Sꜵlar, og þitt Folk j stadinn hans Folks.

43. Epter þad ferdadest Jsraels Kongur þadann, med þungu Skape og Reide, j sitt Hus, og kom til Samariam.

## XXI. Capitule.

(I) Um Naboths Vijngard, og (II) Hormulegann Dauda; er (III) Ollbunges misþocknadest DRottne.

I. 1. Par epter vard sa Atburdur, ad Naboth j Jesreel ꜵtte eirn Vijngard j Jesreel, hiꜵ Achabs Kongs Hollu j Samaria.

2. Og Achab talade vid Naboth, og sagde, Gief mier þinn Vijngard, eg vil giora mier eirn Kꜵlgard þar af, sokum þess, ad hann liggur so j nꜵnd vid mitt Hꜵs, enn eg vil giefa þier eirn betra Vijngard fyrer hann, Eda ef þier so lijkar, þa vil eg giefa þier Silfur fyrer hann, so miked sem hann er verdur.

3. Naboth svarade Achab, DRottinn forde mier þvi, ad eg giefe þier minna Fedra Arf.

II. 4. Pa kom Achab heim, med þungu Giede og reidur, sokum þess Ords sem Naboth j Jesreel talade til hans, seigiande, Eige vil eg giefa þier minna Fedra Arf, Og hann lagde sig j sijna Reckiu, snuande sijnu Andlite (til Veggiar) og ꜵt ecke Braud.

5. Pa kom Jesabel, hans Kvinna, jnn til hans, og mællte vid hann, Hvad er þetta, ad þinn Ande er so þungbuenn, ad þu tekur ecke Fædslu til þijn?

6. Hann sagde til hennar, Eg talade vid Naboth Jesreeliter, og sagde, Gief mier þinn Vijngard fyrer Peninga, edur gyrne þig þad, þa vil eg giefa þier annann Vijngard fyrer

fyrer hann. Enn hann svarade, Eige vil eg giefa þier minn Vijngard.

7. Pa sagde Jesabel, hans Kvinna, til hans, Hvad være Jsrael fyrer Kongs Rijke, ef þu giorder þad? Rijs upp, og et Braud, og vert med goodu giede, Eg vil utvega þier þennann Vijngard Naboths af Jesreel.

8. Og hun skrifade Brief under Achabs Nafne, og innsiglade þad med hans Signete, og sende þad til Olldunganna, og þeirra Ædstu j hans Borg sem biuggu hia Naboth.

9. Og skrifade so j Briefenu, Loated uthroopa Fostu, og setied Naboth efst a millum Folksins.

10. Setied sijdann til tvo vonda Skalka j moote honum, þeir ed vitne og seige, Þu hefur (a) Blessad Gud og Kongenn, og leided hann so ut, og gryted hann j hel.

(a) (Blessad) Þydest hier ad formæla, og lasta.

11. Og Olldungarner, og þeir Yppurstu hans Borgar, sem biuggu j hans Borg, giordu sem Jesabel baud þeim, eins og hun hafde skrifad j Briefenu, þvi sem hun sende til þeirra.

12. Og þeir lietu uthroopa Fostu, og settu Naboth efst a millum Folksins.

13. Sijdann komu þar tveir Vonder Skalkar, og stoodu fyrer honum, og vitnudu moot Naboth fyrer Folkenu, og sogdu, Naboth blessade Gud og Kongenn. Pa leiddu þeir hann ut af Borgenne, og lomdu hann j hel med Griote.

14. Og þeir giordu Bod Jesabel, og lietu seigia henne, Naboth er gryttur, og daudur.

15. Enn sem Jesabel heyrde þad, ad Naboth var j hel gryttur, og daudur, þa sagde hun til Achabs, Rijs upp, og tak Vijngard Naboths j Jesreel, þann sem hann villde ei giefa þier fyrer Peninga, Þviad ecke lifer Naboth, helldur er hann daudur.

16. Enn sem Achab heyrde þad, ad Naboth var daudur, þa stood hann upp, og gieck ofann j Vijngard Naboths Jesreeliters, ad eignast hann.

III. 17. Pa kom Ord DROTTins til Eliam Tesbiter og sagde,

18. Statt upp, og gack ofann a moot Achab Jsraels Konge, sem er j Samaria, (Sia, hann er nu j Vijngardi Naboths, þangad er hann ofann geinginn, ad eignast hann).

19. Og tala þu vid hann, og seig, So seiger DROTTinn, Þu hefur j hel sleiged, og þar med þier til eignar teked. Og þu skallt tala vid hann og seigia, So seiger DROTtinn, J Þeim stad sem Hundarner sleiktu Naboths Blod þar skulu og Hundar sleikia þitt Blod,

20. Og Achab sagde til Elia, Hefur þu funded mig, minn Fiandmadur? Hann sagde, Joa, eg hefe funded þig, Sokum þess ad þu hefur sellt þig til þess, ad giora Jllt fyrer DROTTne.

21. Sia, Eg vil leida Olucku yfer þig, og burttaka þijna Epterkomendur, og Eg vil uppræta af Achab þad sem pissar a Vegg, og þad innelukta og yfergiefna j Jsrael.

22. Og Eg vil giora þitt Hws so sem Hws Jeroboam, sonar Nebat, og sem Hws Baesa, sonar Ahia, fyrer þa styggd sem þu hefur styggt mig med, Og komed Jsrael til ad syndgast.

23. Og DROTTinn talade og so um Jesabel, og sagde, Hundar skulu eta Jesabel hia Jesreels Murum.

24. Hvor j stadnum deyr af Achab þann skulu Hundar uppeta, og hvor sem deyr a Akrenum þann skulu Fuglar under Himmenum uppeta.

25. Og þar var eingenn Madur, sem so var olldungis selldur til ad giora jllt fyrer DROTTne, so sem Achab, Þviad hans Kvinna Jesabel eggiade hann a þad.

26. Og hann giorde sig miog svijvirdelegann, so ad hann gieck j allann mata epter Afgudum, eins og þeir Amoritar giordu, Hvoria DROTTinn utrymde fyrer Jsraels Bornum.

27. Enn sem Achab heyrde þesse Ord, þa
sundur reif hann sijn Klæde, og took eirn
Seck a sinn Lijkama, og fastade, og svaf j
Seck, (b) og gieck hriggdarlega framm.
(b) (Seck) Er nockur Hriggdar Buningur so sem þa Menn hafa harm, eda erfida.
28. Og Ord DROttins kom til Eliam
Thesbiter, og sagde,
29. Hefur þu ei sied Hvorsu Achab aud-
myker sig fyrer mier? Nu sokum þess ad
hann audmyker sig so fyrer mier, þa vil Eg ecke
leida þad Vonda jnn um hans Daga, Enn a
Dögum hans Sonar vil eg þessa Olucku koma
lᴂta yfer hans Hus.

## XXII. Capitule.

(I) Achab fellur j Strijde. (II) Josaphat verdur Konungur yfer Juda.

I. Nu lijda so þriu Aar, ad eingenn Ofri-
dur var j millum þeirra Syrlendsku,
og Jsraels.
2. Enn a þvi þridia Aare foor Josaphat,
Juda Kongur, nidur til Jsraelis Kongs.
3. Og Jsraelis Kongur sagde til sinna
Þienara, Vited þier ecke, ad Ramoth j Gilead
er vor eign, enn vier sitium um kirrt, og tokum
hana ecke af Kongsins Hond j Syrlande.
4. Og hann sagdi til Josaphat, Villt þu
fara med mier, ad strijda j moote Ramoth
j Gilead? Josaphat sagde til Jsraels Kongs,
Eg vil vera lijka sem þu, og mitt Folk er so
sem þitt Folk, og mijner Hestar lijka sem þij-
ner Hestar.
5. Og Josaphat sagde til Jsraels Kongs,
Spyr þo samt j Dag epter DRottins Orde.
6. Þa samansafnade Jsraels Kongur
Spaamonnonum, sem voru nær Fiogur
Hundrud Manna, og sagde til þeirra, Skal
eg fara ad heria a Ramoth (Borg) j Gi-
lead, edur skal eg lᴂta so bued standa? Þeir
sogdu, Far upp, DROTTinn skal giefa
hana j Kongsins Hond.
7. Og Josaphat sagde, Er hier, eingenn
fleyri af DROTTins Spaamonnum, so vier
mættum spyria hann ad?

8. Jsraels Kongur sagde til Josaphat,
Hier er enn nu eirn Madur sem
heiter Micheas, son Jemla, af hvorium
Menn meiga spyria DROTTinn ad, enn eg
er honum reidur, þviad hann spaaer mier
einskis Goods, helldur alls Jlls. Josaphat
sagde, Eige skyllde Kongurenn so tala.
9. Þa kallade Kongurenn einn Herbergis
Svein, og sagde, Sæk þu sem skiotast
Micheas, son Jemla.
10. Og Jsraelis Kongur, og Josaphat,
Juda Kongur, sᴂtu hvor a sijnum Stoole,
skrydder Klædum, a einum Flot fyrer Dy-
ronum a Samariæ Porte. Og aller Spaa-
menn spaadu fyrer þeim.
11. Og Zedekia, son Cnaena, hafde giort
sier Jaarn-Horn, og sagde, So seiger
DROTTinn, Med þessum skallt þu stanga
þa Syros, þar til ad þu eydeleggur þa.
12. Og aller Spaamenn spaadu hid sama,
og sogdu, Far þu upp til Ramoth j Gilead,
og far luckulega, DROTTinn mun giefa
hana j Kongsins Hendur.
13. Enn Sendemadurenn, sem ut var gein-
genn ad kalla Micheam, sagde til hans,
Sioa, Spaamannanna Ræda er samhlioo-
danlega good fyrer Kongenum, So lᴂt nu
þitt Ord vera eins og þeirra Ord, og tala
þad sem gott er.
14. Micheas sagde, So sannarlega sem
DROTTinn lifer, eg vil tala þad sem
DROTTinn bydur mier.
15. Og sem hann kom til Kongsins, þa
sagde Kongurinn til hans, Michea, Skulum
vier fara til Bardaga j Ramoth j Gilead,
eda skulum vier lᴂta þad hiaalijda? Hann sag-
de til hans, Jaa, Far upp þangad, og far
luckulega, DROTTinn skal giefa hana j
Kongsins Hendur.
16. Kongurenn sagde enn eitt sinn til hans,
Eg særi þig, ad þu eckert annad seiger mier,
enn þad sem satt er j DROTTins Nafne.
17. Hann sagde, Eg saa allann Jsrael
sundur tvijstrast um Fiollenn, eins og Sau-

 der

der þeir sem ongvann Hirder hafa. Og DROTTinn sagde, Þesser hafa ongvann Herra, snwe hvor ydar heim aptur med Fride.

18. Þa sagde Israelis Kongur til Josaphat, Hefe eg ecke sagt þier þad, ad þesse spaaer mier einskis gods, helldur alls jlls.

19. Hann sagde, Heyr nu fyrer þvi Ord DROTTins, Eg sa DROTTinn sitia a siinu Haasæte, og allur Himensins Her stod hiaa honum, til hans Hægre og Vinstre Handar.

20. Og DROTTINN sagde, Hvor vill radleggia þad Achab, ad hann fare upp, og falle j Ramoth j Gilead? Og eirn sagde þetta, enn annar þad.

21. Þa kom þar eirn Ande wt, og gieck framm fyrer DROTTinn, og sagde, Eg vil koma honum til þess. DROTTinn sagde til hans, Hvar med?

22. Hann sagde, Eg vil fara wt, og verda eirn Lyge Ande j Munne allra hans Spaamanna. Hann sagde, Þu skallt koma honum þar til, og þu skallt frammkvæma þad, gack wt, og gior so.

23. Sia nu, DROTTinn hefur giefed eirn Lyge Anda j Munn allra þinna Spaamanna, og DROTTinn hefur talad jllt yfer þier.

24. Þa gieck framm Zedechia, Son Cnaena, og slo Micheam uppa Kinnvangann, og sagde, Hvad? Er Ande DROTTins þa vikenn fra mier, ad hann talade vid þig?

25. Micheas svarade, Sia, þu munt þad sia a þeim Deige, þa þu geingur wr einu Herberge til annars, so þu meiger fela þig.

26. Þa sagde Israels Kongur, Taked Micheam, og lated hann vera hia Amon Borgmeistara, og hia Joas Kongs Syne.

27. Og seiged, So seiger Kongurenn, Setied þennann jnn j mirkva Stofu, og næred hann med Sorgar Braude, og Vatne, þar til eg kiem aptur med Fride.

28. Micheas svarade, Ef þu kiemur aptur med Fride, þa hefur DROTTINN ecke talad fyrer mig. Og hann sagde, Heyred til allur Lydur.

29. So for nu Israels Kongur, og Josaphat, Juda Kongur, upp til Ramoth j Gilead.

30. Og Israels Kongur sagde til Josaphat, Breyt þu þijnum Klæda Bunade, og gack so j Bardaga med þijnum Klædum sem þu hefur a þig teked. Og Israels Kongur skipte Bwninge, og for j Bardagann.

31. Enn Kongurenn af Syria baud Hofdingiunum yfer siinum Vognum, hvorier ad tolu voru Tveir og Þriatijer, og hann sagde, Beriest ecke jmote neinum, smaam nie storum, utann alleinasta a mote Israels Konge.

32. Enn sem Hofdingiarner fyrer Vognonum sau Josaphat, þa atludu þeir, ad hann munde vera Israels Kongur, og soktu ad honum med Strijdenu. Þa kallade Josaphat upp.

33. Enn sem þeir Hofdingiar fyrer Vognonum sau, ad hann var ecke Israels Kongur, þa sneru þeir sier tilbaka fra honum.

34. Enn eirn Madur spannade sinn Boga uppa ovissu, og skaut Israels Kong millum Pantzarans, og (a) Sverdreimarennar. Þa sagde hann til siins Vagnsveins, Snu þinne Hende, og fær mig wr Hernum, þvi eg er saar ordenn.

(a) (Sverdreimarennar) þar sem Sverded hanger j fra Oxlenne nidur til Lærsins.

35. Og Strijded fieck ofurefle þann sama Dag, og Kongurenn stod upp j Vagnenum jmot þeim Syris, og doo a þvi sama Kvollde. Enn Blodet flaut af Skarenu midt j Vagnenn.

36. Og þa Sol gieck til Vidar var lated wthropa um Herinn og seigia, Fare hvor j siina Borg, og j sitt Land.

37. So liet Kongurenn Lijf sitt, og var fluttur j Samaria, og þar var hann jardadur j Samaria.

38. Enn sem þeir þvodu Vagnenn hiaa Tiorn, j Samaria, þa sleiktu Hundar hans Blod, (b) sem Skiækiur þvodu, epter Ordum DROTTJNS, sem hann hafde talad.

(b) (Skiækiur) Kroar Konur, edur Þvottakonur.

39. Hvad sem meira er ad seigia um Achab, og allt þad hann giorde, og um hans Hws sem hann biggde af Fijla-Beinum, og um alla þa Stade sem hann liet uppbiggia, sia, þad er skrifad j Jsraels Konga Chronicu.

40. So sofnade Achab med sijnum Fedrum, enn hans Son Ahasia vard Kongur j hans Stad.

II. 41. Og Josaphat,* Son Asa, vard Kongur yfer Juda, a þvi Fiorda aare Achabs, Jsraels Kongs.

* [Heimsins Midalldur sem stadid hafde j Þriu Þusund aar, inn til Fædingar Tijma Josaphats, a hvørium Elias og Eliseus lifdu, fyrer Christi Fædingu 961. aar.]

42. Hann var hoalf fertugur þa hann vard Kongur, og rijkte Fimm og Tuttugu Aar j Jerusalem. Hans Moder hiet Asuba, Dotter Silhi.

43. Og hann gieck allann Veg sijns Fodurs Asa, og veik ecke þar af, og hann giorde þad DROTTni vel þocknadest.

44. Þo tok hann ecke burt þær Hæder, og Folked offrade enn þa, og brennde Reykelse a Hædonum.

45. Og hann hafde Frid vid Jsraels Kong.

46. Hvad meira er ad seigia af Josaphat, og um hans Magt, hvad hann hefur giort, og hvørnenn hann Heriade, sia, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

47. Hann wtrymde Hoorkarla af Landenu, sem ad epter voru ordner j Tijd Asa, hans Fodurs.

48. Þa var eingenn Kongur j Edom.

49. Og Josaphat liet giora Skip til Sios, sem skylldu fara til Ophir, ad sækia Gull. Enn þau foru ecke þangad, þvi þau urdu j sundursleigenn j EseonGeber.

50. A þeim Tijma sagde Ahasia, Son Achabs, til Josaphat, Laat mijna Þienara fara med þijnum Þienorum a Skiponum. Enn Josaphat villde ecke.

51. Og Josaphat sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur med sijnum Fedrum, j Borg Davids sijns Fodurs. Og Joram, hans Son, vard Kongur j hans Stad.

Ender a þeirre Firre Konganna Book.

# Aunnur Book Konganna.

## I. Capitule.

Hversu ad Ahasias, Jsraels Kongur, (I) vard Siukur, og (II) sender til Spaamannsins Elias.

I. 52. Ahasia, Son Achab, vard Kongur yfer Jsrael j Samaria, a þvi seitianda aare Josaphats, Juda Kongs, og hann rijkte yfer Jsrael Tvo aar.

53. Og hann giorde þad sem DROttne illa lijkade, og framm for a Vegum Fodur sijns og Modur, og gieck epter Vegum Jeroboams, Sonar Nebat, sem Jsrael kom til ad syndga.

54. Og hann þionade Baal, og tilbad hann, enn styggde DROTTJNN Jsraels Gud, eins lijka sem hans Fader giorde.

I. Cap. 1. Epter Andlaat Achabs fiellu Moabitar fra Jsrael.

2. Og Ahasia fiell ofann um Grindur j sijnum Sal til Samaria, og vard siukur. Og hann sende Sendeboda, og sagde til þeirra, Fared, og spyried BaalSebub ad, sem

 er

er Gud j Ekron, Hvort eg mun rietta vid af þessum Siukdome?

3. Enn Eingell DROTTins talade vid Elia Thesbiter, Rijs upp, og gack a Veigenn fyrer Kongs Sendemenn af Samaria, og seig til þeirra, Er þar nu þa eingenn Gud j Israel, ad þier fared og spyried BaalSebub Ekrons Gud?

4. Þar fyrer seiger DROTTinn so, Eige skalltu koma vor þeirre Reckiu sem þu liggur j, helldur skalltu vissulega deya. Og Elias gieck burt.

5. Enn sem Sendemeñ komu til hans aptur þa sagde hann til þeirra, Þvi komed þier aptur?

6. Þeir svorudu honum, Þar kom eirn Madur upp jmote oss, og sagde til vor, Snued aptur til Kongsins, sem ydur sende, og seiged honum, so seiger DROTTinn, Er þar þa eingenn Gud j Israel, ad þu sender til frietta til BaalSebub Guds Ekrons? Þess vegna skalltu ecke koma vor Reckiu þar þu liggur, þviad þu skallt Dauda deya.

7. Hañ sagde til þeirra, Hvorsu var sa Madur j hoatt sem ydur mætte, og sagde ydur þetta?

8. Enn þeir svorudu honum, Hann var j lodinne Hvod, og hafde eitt Olar bellte um sijnar Lendar. Enn hann svarade, þad er Elias Thesbiter.

II 9. Og hann sende til hans eirn Hofudsmann yfer Fimmtijger, asamt med þeim Fimmtijger. Enn sem þesse kom upp til hans, Sioa, þa sat hann efst a Fiallenu. Og hann sagde til hans, Þu Guds Madur, Kongurenn seiger ad þu skuler koma ofann.

10. Elias svarade þeim sama Hofudsmanne yfer Fimmtije, og sagde til hans, Sie eg Guds Madur, þa falle Elldur af Himnum og uppsvelgie þig og þijna Fimmtijge. Þa fiell Elldur af Himnum og uppsvalg hann, og hans Fimmtijge.

11. Og enn sende hann aptur annann Hofuds Mann yfer Fimmtijger til hans, asamt med hans Fimmtijge, hann svarade og sagde til hans. Þu Guds Madur, So seiger Kongurenn, Kom sem skiotast ofann.

12. Elias svarade, og sagde, Sie eg Guds Madur, þa falle Elldur af Himne, og uppsvelgie þig, og þijna Fimmtijge. Þa fiell Elldur Guds af Himne, og uppsvalg hann og hans Fimmtijge.

13. Sijdann sende hann aptur þann Pridia Hofudsmann yfer Fimmtijge, og med honum Fimmtijger Menn, og er hann kom upp til hans, þa beigde hann sijn Knie fyrer Elia, bad hann, og sagde til hans, Þu Guds Madur, Lat mijna Sal, og Saler þinna Þienara, þessara Fimmtijge, nockud gillda fyrer þier.

14. Sioa, þar fiell Elldur af Himne, og uppbrennde þa Tvo Firstu Hofudsmenn yfer Fimmtijger, med þeirra Fimtijge (Monnum). Lat nu mijna Sal gillda nockud fyrer þier.

15. Þa sagde Guds Eingell til Eliam, Far ofann med honum, og ottast ecke fyrer honum. Og hann reis upp og gieck ofann med honum til Kongsins.

16. Og hann sagde til hans, so seiger DROTTinn, Fyrer sokum þess, ad þu sender Bod, og lietst adspyria BaalSebub, þann Gud j Ekr-n, so sem þar være eingenn Gud j Israel, hvorn þu meiger ad Orde spyria, þvi skallt þu nu ecke rijsa vor þeirre Reckiu, sem þu liggur j, helldur skallt þu vissulega deya.

17. Og so doo hann epter DROTTins Orde, sem Elias hafde talad. Og Joram vard Kongur j hans Stad, a odru are Joram Sonar Josaphats Juda Kongs, þvi hann atte ongvann Son.

18. Hvad meira er ad seigia um Ahasia, og þad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

## II. Capitule.

(I) Elias er upnuminn til Himna, fra Elisæus hvered (II) skipter Jordan med Mottle Elia; Og (III) giorer Vatned Sætt i Jericho; En (IV) formæler i Nafne Drottins nockrum Smaa-Sveinum.

1. Enn þegar DROttinn villde upp taka Eliam j Vindenum til Himens, þa geink-

geingu þeir Elias og Eliseus fra Gilgal.

2. Og Elias sagde til Eliseum. Eg bid þig, Vert hier (epter) þviad DROttinn sende mig til BethEl. Eliseus sagde, So sannarlega sem DROTTinn lifer, og þijn Sꜳl, eg yfergief þig ecke. Og sem þeir komu ofann til BethEl,

3. Þa geingu Spꜳmannanna Born, sem voru j BethEl, wt a mote Eliseo, og sogdu til hans, Veitstu þad, ad DROttinn vill a þessum Deige taka þinn Herra fra þijnu Hofde? Hann sagde, Eg veit þad vel, vered Hlioder.

4. Og Elias sagde til hans, Elisee, Eg bid, vert hier epter, þvi DRottinn hefur sendt mig til Jericho. Hann sagde, So sannarlega sem DROTTinn lifer, og þijn Sꜳl, þa skilst eg ecke vid þig. Enn sem þeir komu til Jericho,

5. Þa geingu Spꜳmannanna Born til Eliseum, sem voru j Jericho, og sogdu til hans, Veitst þu þad, ad DROTTinn vill a þessum Deige taka þinn Herra fra þijnu Hofde? Hann sagde, Eg veit þad vel, hafed hliodt.

6. Og Elias sagde til hans, Eg bid, vert þu epter hier, þvi DROttinn hefur sendt mig til Jordan. Hann sagde, So sannarlega sem DROTTinn lifer, og þijn Sꜳl, eg fyrerlæt þig ecke, og þeir geingu Tveir samt.

7. Og Fimmtiju Menn af Spꜳmanna Bornum geingú af Stad og stodu gagnvart langt fra þeim, enn þeir stodu bꜳder hiꜳ Jordan.

8. Þa tok Elias Mottul sinn, og vafde hann samann, og sloo j Vatned, enn þad skipte sier a bꜳdar Sijdur, so þeir geingu bꜳder þurrer þar yfer um.

9. Enn sem þeir komu yfer um, þa sagde Elias til Eliseum, Bid þess sem eg giøre þier, ꜳdur enn eg verd numenn fra þier. Eliseus sagde, Eg bid ad þinn Ande meige (a) tvofalldast hiꜳ mier.

(a) (Tvofalldast) Ecke vill Eliseus hafa Tvofallt ann Anda vid Eliam, þvi þad er ecke utann eirn Ande j øllum Heilogum, 1 Cor. 12, 4. Helldur Tvijklyfann Munn þess sama Anda, so ad hann kynne krøptulegar ad predika, og meir enn Elias, so sem hann og giørde.

10. Hann sagde, Þess hefur þu beded sem er torvellt. Enn allt ad einu, ef þu sier mig, þa eg verd nu uppnumenn fra þier, þa mun þad vera so, enn sierer þu mig ecke, þa skier þad ecke.

11. Og þa þeir geingu til samans, og hann var ad tala, Siꜳ, þa kom þar eirn elldlegur Vagn med elldlegum Hestum, og skilde þa bꜳda ad, hvorn fra ødrum, og Elias for (b) so j Vindenum til Himens.

(b) Enoch var uppnumenn a firsta Heims Alldre; Elias a midium Heims Alldre, Christus a hinum sijdarsta, til Vitnisburdar, ad þar sie Eylijft Lijf (epter þetta).

12. Eliseus sꜳ þad, og kallade, Minn Fader! Minn Fader! Israels Vagn; og hans Reidmenn, og Hann sꜳ hann ecke meir. Og hann tok sijn Klæde, og hreif þau sundur j Tvo Hlute.

II. 13. Og hann tok upp Mottul Elie, sem fiell fra honum, hvarf aptur, og kom til Jordanar Backa.

14. Og tok þann sama Mottul Elie sem fiell fra honum, og slo a Vatned, og sagde, Hvar er nu DROTTinn Elie GUd? Og er hann sloo j Vatned þa skipte þad sier a bꜳdar Sijdur, og Eliseus gieck yfer um.

15. Nu sem Spꜳmanna Born þad sꜳu, sem voru j Jericho, giegnt honum, þa sogdu þeir, Ande Elia hvijler yfer Eliseo. Og þeir geingu jmot honum, og tilbꜳdu a Jordunne.

16. Og þeir sogdu til hans, Siꜳ, Hier eru Fimmtijge hraustra Manna a medal þinna Þienara, lꜳt þa fara ad leita epter þijnum Herra, skie mꜳ, ad DROTTins Ande hafe teked hann, og fleygt honum nockurs stadar a eitthvort Fiall, edur nockurs stadar j eirn Dal. Hann sagde, Lꜳted þa hvorge fara.

17. Enn þeir neyddu hann, til þess hann blygdadest vid, og sagde, Lꜳted þa fara af

Stad. Og þeir sendu Fimmtijger Menn af
Stad, og þeir leitudu epter honum j Þria
Daga, og fundu hann ecke.

18. Og þeir komu aptur til hans. Og
hann var j Jericho, og sagde til þeirra, Sagde
eg ei ydur, ad þier skylldud hvorge af
Stad fara?

III. 19. Og Borgarmennerner sogdu til Eliseum,
Sioa, þesse Stadur er godur Ibwdar,
so sem minn Herra sier, enn hier er
vondt Vatn, og Jord miog ofriosom.

20. Hann sagde, Færed mier hingad eina
nya Skoal, og loated Sallt j hana. Og
þeir færdu honum Skoalena.

21. Sijdann gieck hann wt til Uppsprettunnar,
og varpade Salltenu j hana, og sagde,
So seiger DROTTinn, Þetta Vatn
giorda eg heilnæmt, þar skal eingenn Daude,
eda nockurs hoattar ofriosleikur af koma
hiedann j fra.

22. So vard Vatned heilnæmt, allt til
þessa Dags, epter þeim Ordum sem Eliseus
hafde sagt.

IV. 23. Og hann gieck upp til BethEl.
Og sem hann var komenn a Veigenn, þa
geingu þar Smoasveinar ut af Stadnum, og
hæddu hann, og sogdu til hans, Stijg hier
upp Skalle! stiig hier upp Skalle!

24. Og hann snere sier vid, og þa hann soa
þa, þa bolvade hann þeim j Nafne DROTTins.
Þa komu þar Tvo Biarndyr wr
Skogenum, og slitu Tvo og Fiorutijge af
þessum Smoasveinum.

25. Og hann gieck þadann uppa Fialled
Carmel, og snere þadann til Samaria.

## III. Capitule.

Um Joram Israels Konungs (I) Rijkes-Stiorn; (II) Hernad; og (III) Sigurvinning.

I. Joram, son Achabs, vard Kongur yfer
Israel j Samaria, a þvi oatianda
Aari Josaphats Kongs Juda, og rijkte Tolf
Aar.

2. Og hann giorde þad sem DRottni jlla
lijkade, Þo eige sem hans Fader, og hans
Moder. Þvi hann burt took Baals stoolpa,
sem hans Fader liet giora.

3. Enn þo hieck hann vid Synder Jeroboams,
sonar Nebat, sem Israel kom til ad
syndgast, og liet þar ecke af.

II. 4. Og Mesa, Moabita Kongur, hafde
fiolda Sauda, Hann greiddi j Skatt Israels
Konge Hundrad Þusund Lambareyfe,
og Reyfe af Hundrad Þusund Hrwtum.

5. Enn sem Achab var daudur þa fiell
Kongur Moabitarum fra Israels Konge.

6. Sijdann foor Joram Kongur ut af
Samaria, a þeim sama Tijma, og talde
allann Israel.

7. Og hann sende burt til Josaphats,
Kongsins Juda, og liet seigia honum.
Kongur þeirra Moabitarum er fallenn fra
mier, Kom med mier, ad beriast vid þa Moabita.
Hann svarade, Eg vil koma þar upp,
Eg er sem þu, og mitt Folk so sem þitt Folk,
og mijner Hestar so sem þijner Hestar.

8. Og hann sagde, Um hvorn Veg viliun
vid fara upp þangad? Hann sagde, A þann
Veg sem liggur um Edoms Eydemork.

9. So ferduduft þeir, Israels Kongur, og
Kongur Juda, og Kongurenn af Edom. Og
sem þeir hofdu ferdast sio Daga Reisu, þa
hafde Herenn, og þad Kvikfie sem var med
þeim, eckert Vatn.

10. Þa sagde Israels Kongur, O Vei!
þviad DROTTinn hefur kallad þessa þria
Konga, ad hann giefe þa j Hendur Moabitarum.

11. Josaphat svarade, Er hier eingenn
Spoamadur DROTTins, so vier meigum
spyria DROTTinn ad roadum fyrer hann?
Þa svarade eirn af Israels Kongs Þienorum,
og sagde, Hier er Eliseus, son Saphat,
sem gaf Vatn a Elias Hendur.

12. Josaphat sagde, Hioa honum er Ord
DROTTins. So fooru þeir Israels Kongur,
og Josaphat, og Edoms Kongur, ofann
til hans.

13. Pa sagde Eliseus til Israels Kongs, Hvad hefur þu med mig? Far burt til Spaamanna Fodur þijns, og Moodur þinnar. Israels Kongur svarade honum, Nei, Þviad DROTTinn hefur kallad þessa þria Konga, ad hann giefe þa j Hendur þeirra Moabitarum:

14. Eliseus sagde, So sannarlega sem DROTTinn Zebaoth lifer, fyrer hvorium eg stend, Ef Eg sæe ecke til Josaphat Juda Kongs, skyllde Eg ecke sioa til þijn nie þig akta.

15. So sæked mier nu eirn Hlioodsæra Mann. Nu sem Hlioodsæra madurenn took ad leika a Streingena þa kom DROTTins Hond yfer hann.

16. Og hann sagde, So seiger DRottinn, Gioreð Grafer hier og hvar hioa þessum Læk.

17. Þvi so seiger DROTTinn, Þier skulud hvorke sioa Vind nie Regn, þo skal þesse Lækur verda fullur af Vatne, so ad þier, ydrer Þienarar, og ydart Kvikfie skal drecka þar af.

18. Þar med er þad lijtels verdt fyrer DROTTne, Hann skal og giefa Moabita j ydar Hendur.

19. So ad þier munud nidur sloa alla fasta Stade, og alla utvalda Stade, þier skulud og upp hoggva oll good Trie, og þier skulud byrgia alla Vatnsbrunna, og þier munud fordiarfa alla oagiæta Akra med Steinum.

20. Aarla Morguns, um þann Tijma sem Menn plogudu ad offra Matoffre, Sioa, þa kom þar Vatn a þeim Veige sem liggur fra Edom, og uppfyllte Landed med Vatn.

III. 21. Enn sem aller Moabitar spyria þetta, ad Kongarner voru farner upp ad strijda j moote þeim, þa kolludu þeir alla þa til samans sem voru noogu gamler til Strijds og þadann af, og fooru til Landamerkia,

22. Og þa þeir biugguft snemma Morguns, og Solenn gieck uppa Vatned, þa sau Moabitar, ad Vatned var raudt, a moote þeim, sem Blood.

23. Þa sogdu þeir, þad er Blood, Kongarner hafa fordiarfad sig med Sverde, og eirn dreped annann nidur, Æ Moab! far nu epter Herfoange.

24. Enn sem þeir komu til Israels Herbuda þa stood Israel upp, og sloo þa Moabita, og þeir flydu fyrer þeim. Enn þeir komu inn og sloou Moab.

25. Þeir nidurbrutu Borgernar, og hvor kastade sijnum Steine a alla Gooda Akra og fylltu þa, og þeir tilbyrgdu allar Vatnsuppsprettur, og hiuggu nidur oll good Trie, so leinge, ad þar var ecke epter utann Steinarner af Tigul Muornum. Og þeir gaafu sig til hans med Slongvum, og sloou hann.

26. Enn sem Moabita Kongur saa, ad Strijded var honum of oflugt, þa took hann Sio Hundrud Manna til sijn, sem Sverdum ricktu, og villde briotast vt j moot Kongenum af Edom. Enn þeir gaatu þad ecke.

27. Sijdann took hann sinn Frumgietinn Son, hvor ed verda aatte Kongur j hans stad, og offrade honum uppa Muornum til Breñeoffurs. Þa vard Israel miog reidur, so þeir fooru fra honum, og sneru aptur j sitt Land.

## IV. Capitule.

*Prophetenn Eliseus giorer Jarteikn fyrer DRottens Krapt (I) (II) (III) (IV) (V)*

I. Og eirn af Eigennkonum Spaamannana Barna kallade til Eliseum, og sagde, Þinn Þienare, minn Bonde, er andadur. So veitst þu, ad hann þinn Þienare ottadest DROTTinn, Nu kom þar eirn Madur, sem aatte skulld hioa honum, og vill taka bæde mijn Born sier til Þræla.

2. Eliseus svarade henne, Hvad skal eg giora þier? Seig mier, Hvad hefur þu j Hwsenu? Hun svarade, Þijn Þienustu Kvinna hefur eckert j sijnu Hwse, nema eina Vidsmiors Krws.

3. Hann sagde, Far þu af stad, og bid þar vte allar þijnar Naabua Kvinnur, um toom Kier, og ofka ecke allfaarra.

4. Og gack jnn, og loka Dyronum epter þier, med þijnum Sonum, og hell j oll Kierenn, Og þa þau eru full, þa soa þau froa þier.

5. Hun foor af stad, og lokade Dyronum ad sier, med sijnum Sonum, þeir færdu Kierenn til hennar, enn hun hellte j þau.

6. Enn þa Kierenn voru full, þa sagde hun til sijns Sonar, Foa mier hingad enn eitt Kier. Hann svarade henne, Hier eru ecke fleyre Kier til. Þa stood Vidsmiored.

7. Og hun gieck ut, og kunngiorde þetta Guds Manne. Hann svarade, Far nu, og sel Vidsmior, og bitala þeim sem þu ert skylldug, Sijdann skallt þu og þijner syner hafa ydur til vidurlijfis þad sem meira er.

II. 8. Og þad skiede j þann Tijma, ad Eliseus gieck til Sunem, Þar var ein rijk Kvinna, hun hiellt hann, so hann took Fædu hioa henne. Og sem hann foor opt þar j giegnum, þa took hann gysting hioa henne, og þoa hennar Fædu.

9. Og hun sagde til sijns Bonda, Sioa, eg merke ad þesse Guds Madur er Heilagur, sem jafnann geingur hier j gegnum.

10. Vid vilium giora honum eitt lijted Herberge hier uppyfer, og setia þangad handa honum eina Sæng, Bord, Stool, og Kiertastiku, so ad nær hann kiemur til vor þa meige hann vera þar.

11. Og þad skiede so eirn Tijma, ad hann kom þar jnn, og lagde sig upp j Herberged, og svaf þar inne.

12. Þa sagde hann til sijns Sveins Giezi, Kalla þu a þessa Sunamitisku Kvinnu. Og sem hann kallade a hana, þa kom hun framm fyrer hann.

13. Hann sagde til hans, Seig til hennar, Sioa, þu hefur veitt oss allann þennann goodvilia, Hvad skal eg giora þier? Hefur þu nockurt Erende vid Kongenn, eda vid Hershofdingiann. Hun svarade, Eg (a) by a millum mijns Folks.

(a) (By a millum) þad er, Eg hef eckert ad-erenda til Hoofa, Eg by ad eins a medal Folksins.

14. Hann sagde, Hvad skal þa giora til vid hana? Giezi sagde, Ah, hun hefur ongvann Son, enn hennar Madur er gamall.

15. Hann sagde, Kalla þu a hana. Og sem hann kallade hana, þa gieck hun framm j Dyrnar.

16. Og hann sagde, A þessum sama Tijma, ad Aarenu lidnu, þa skalltu taka eirn Son j Fadng. Hun svarade, O nei, minn Herra! Þu Guds Madur, skrokva ecke ad þinne Pionustu Kvinnu.

17. Og Kvinnann vard þungud, og fædde eirn Son, a þeim sama Tijma um Aared, sem Eliseus hafde sagt henne.

III. 18. Nu sem Barned var vaxed, þa bar so til, ad þad gieck ut til sijns Fodurs, til Kornskurdar Mannanna.

19. Og sagde til sijns Fodurs, O mitt Hofud! mitt Hofud! Hann sagde til sijns Pienara, Ber hann til sinnar Modur.

20. Og hann took hann, og færde hann jnn til sinnar Modur. Og hun lagde hann j sitt Skaut, allt til Middags, þa andadest hann.

21. Hun gieck upp, og lagde hann j Sæng Guds Manns, Liet aptur Dyrnar, og gieck wt.

22. Og hun kallade a sinn Boonda, og sagde, Send fyrer mig eirn af Pienoronum, og eina Osnu, Eg vil fara til Guds Manns, og koma aptur.

23. Hann sagde, Þvi villt þu til hans, nu er hvorke j Dag Nyr Maanudur nie Sabbaths Dagur? Hun sagde, Vert til Frids.

24. Og hun liet sodla Osnu, og sagde til Pienarans, Keir fast, og tef mig ecke a Ferdenne, so sem eg seige þier.

25. So foor hun af stad, og kom til Guds Manns a Fialled Carmel. Og sem Guds Madur soa hana fyrer sier, þa sagde hann til sijns Pienara Giezi, Sioa, Su Sunamitiska er þar.

26. Skunda nu wt a moote henne, og spyr

spyr hana ad, Hvort þad geingur vel henne, hennar Manne, og hennar Syne? Hun sagde, Vel.

27. Enn sem hun kom til Guds Manns a Fialled, þa hiellt hun um hans Fætur. Giezi gieck ad, og villde hrinda henne þar fraa. Enn Guds Madur sagde, Laat hana kirra, þvi Hennar Saal er harmþrwngenn, Enn DROTTinn hefur leynt mig þvi, og laated mig ecke vita þad.

28. Hun sagde, Nær bad eg um eirn Son af mijnum Herra? Sagde eg ecke, ad þu skylldet ecke kallsa mig.

29. Og hann sagde til Giezi, Gyrd þijnar Lendar, og tak minn Staf j þijna Hond, far af stad (ef þier mæter nockur, þa * heilsa honum ecke, Enn ef nockur heilsar þier, þa svara þu honum øngvo) og legg minn Staf yfer Asionu Sveinsins. * Luc. 10, 4.

30. Moder Pilltsins sagde, So sannarlega sem DROTTinn lifer, og þijn Saal, eg fyrerlæt þig ecke. Þa bioo hann sig, og gieck epter henne.

31. Enn Giezi gieck af stad undann þeim, og lagde stafenn yfer Sveinsins Asionu, enn þar var eingenn Rodd nie Tilfinning, So gieck hann aptur og mætte honum, og underviijsade honum, og sagde, Eige vaknade Sveirnenn.

32. Enn sem Eliseus kom j Hwsed, Sioa, þa laa Sveirnenn daudur a hans Sæng.

33. Og hann gieck jnn þangad, og lokade Dyrnar ad þeim baadum, og bad til DROttins.

34. Og hann stie upp og lagde sig yfer Barned, og lagde sinn Munn yfer Barnsins Munn, og sijn Augu yfer hans Augu, og sijnar Hendur yfer hans Hendur, og breidde sig so yfer hann, so ad Barnsins Lijkame vard varmur.

35. Og hann stood upp aptur, og gieck j Hwsed einusinne, hingad og þangad, og stie upp, og breidde sig yfer hann. Þa hnerrade Sveirnenn sioo sinnum, Þvi nærst upp lauk Sveirnenn sijnum Augum.

36. Og hann kallade a Giezi, og sagde, Kalla a þa (b) Sunamitisku. Og sem hann kallade hana, Gieck hun jnn til hans. Hann sagde, Tak þar þinn Son.

(b) Þesse Kvinna var kienno vid þann Stad sem hun var fædd i, og er þvi kollud Sunamitisk.

37. Þa kom hun, og fiell til Foota honum og tilbad a Jordinne, og tok sinn Son, og gieck wt.

IV. 38. Enn sem Eliseus kom aptur til Gilgal þa var Hallære j Landenu, og Spaamannanna Born saatu fyrer honum. Og hann sagde til sijns Þienara, Laat upp eirn stooraun Kietel, og kocka eirn sætann Riett, handa Bornum Spaamannanna.

39. Þa gieck eirn wt a Akurenn ad safna samann Jurtum, og fann Ville-Vijnkvijstu, og tijnde þar af sinn Kyrtel fullann med Colloqvintide, og sem hann kom, þa skar hann þad j Kietelenn til Sæts Riettar, þvi þeir visu ei hvad þad var.

40. Og sem þad var uppläted fyrer Mennena ad eta, og þeir aatu af Riettenum, þa kolludu þeir upp, og sogdu, O Guds Madur! Daude er j Katlenum! þvi þeir gaatu ecke eted þar af.

41. Þa sagde hann, Færed hingad Miol. Og hann kastade þvi j Kietelinn, og sagde, Skamted þad nu upp fyrer Folked, so þad meige eta. Þa var eckert jllt j Katlenum.

V. 42. Og þar kom eirn Madur af Baal-Salisa og færde Guds Manne Tuttugu Biggbraud af firsta Avegste, j sijnu Klæde, og Nytt Korn. Enn hann sagde, Gief þetta Folkenu ad eta.

43. Hans Þienare svarade, Hvad skal eg giefa Hundrad Monnum þar af? Hann sagde, Gief þu Folkenu so þad neyte. Þviad so seiger DROTTinn, Menn munu eta, og mun afganga.

44. Hann lagde þad fyrer þa, og þeir aatu, og þo gieck þar af, epter Orde DROttins.

# V. Capitule.

Um Naamans (I) Lijkþraa; (II) Hreinsun; og (III) Ørlæte.

I. Naaman, Hershøfdinge Kongsins j Syria, hann var merkelegur Madur fyrer sijnum Herra, og hvatt af = halldenn. Þvi DROTTinn gaf Farsælld j Syria fyrer hann, og hann var eitt Mikelmenne, og Lijkþraar.

2. Og Strijdsfolk af Syria hafde giört Uthlaup, og hafde burt flutt eina litla Stulku af Israels Lande, hvør ad þionade Naamans Kvinnu.

3. Hun talar so fyrer sinne Frw, GUD giæfe ad være minn Herra hiaa þeim Spaamanne j Samaria, þa munde hann frelsa hann fra sinne Spitelsku.

4. Þa gieck hann jnn fyrer sinn Herra, og sagde hønum þar til, og sagde. Ein Mær af Israels Lande hefur so og so talad.

5. Kongurenn af Syria sagde, So far þu þangad, eg vil skrifa Brief til Israels Kongs. Og hann ferdadest af Stad, og tok med sier Tiju Centener Silfurs, og Sex Þusund Gyllene, og Tiju Hvatijda Dags Klæde.

6. Og færde Briefed Israels Konge, þad hliodade so. Þa þetta Brief kiemur til þijn, Siaa, þa skallt þu vita, ad eg hefe sendt minn Þienara Naaman til þijn, so ad þu giörer hann heilann af sinne Lijkþra.

7. Enn sem Israels Kongur hafde lesed Briefed, þa reif hann sijn Klæde, og sagde, Er eg þa GUD, so ad eg meige deyda og lijfga, ad hann sender til mijn, ad eg skule giøra þann Mann heilann af sinne Lijkþraa? Hugleided og skoded, Hvørra tilefna hann leitar jmote mier.

II. 8. Þegar Eliseus Guds Madur heyrde þetta, ad Israels Kongur hafde sundur rifed sijn Klæde, þa sende hann til hans, og liet segia hønum, Þvi reifstu j sundur þijn Klæde, Laat hann koma til mijn, so hann meige vita, ad hier er eirn Spaamadur j Israel.

9. So kom Naaman med Hestum og Vøgnum, og stod vid fyrer Elisei Hwsdyrum.

10. Þa sende Eliseus bod til hans, og liet segia hønum, Far þu og þvo þig Sio sinnum j Jordan, so skal þitt Holld verda samt aptur, og hreinsast.

11. Þa vard Naaman reidur, for burt, og sagde, Eg hugde ad hann munde koma wt til mijn, og ganga framm ad, og aakalla Nafn DROTTins sijns Guds, og hræra med sinne Hende vid þann Stad, og taka so Spitelskuna j burtu.

12. Eru ecke þau Vøtn Amana og Pharphar, j Damasco, betre enn øll Vøtn j Israel, so eg hefde maatt þvo mig j þeim, og verda hreinn? Og hann snere sier, og for burt j Reide.

13. Þa geingu ad hønum hans Sveinar, Tøludu vid hann, og søgdu, Kiære Fader! Þo ad Spaamadurenn hefde boded þier eitt hvad Torvellt, skyllder þu ecke giøra þad? Hvad miklu framar, þad hann sagde til þijn, Þvo þier, og muntu verda hreinn.

14. Þa steig hann af og dijfde sier Sio sinnum j Jordan, so sem Guds Madur hafde sagt, og hans * Holld vard samt, lijka sem eitt Barns Holld, og hann vard hreinn. * Luc. 4, 27.

III. 15. Og hann hvarf aptur til Guds Manns, med øllum sijnum Her. Og sem hann kom jnn, þa gieck hann framm fyrer hann, og sagde, Siaa, eg veit ad þar er Eingenn GUD j øllum Løndum, utann j Israel. So tak nu þessa Blessan af þijnum Þienara.

16. Hann svarade, So sannlega sem Drottinn lifer, fyrer hvørium eg stend, eg tek þad ecke. Og hann neydde hann til ad taka þad. Enn hann villde ecke.

17. Þa sagde Naaman, Maa ecke þa þijnum Þienara giefast ein Byrde af þessare

Jordu, so miked sem Tveir Mvolar bera? Hviad þinn Þienare vill ecke hiedan j fra færa Forner eda Brenneoffur annarlegum Gudum, helldur DROTTne.

18. Ad DROTTINN vilie vera þijnum Þienara þar vti naadugur, þegar eg tilbid j Remmons Hwse, þa minn Herra geingur jnn j Remmons Hws, ad bidiast þar fyrer, og (a) hann stydur sig vid mijna Hond.

(a) (Stydur) Þad er Ebresk Maalsika, og merker so miked sem vier pløgum ad seigia, Hann er mier hende leingre, þad er, Hann er hiaa mier, giører og frammkvæmer þad eg byd honum, og eg hefe Traust aa honum. Siaa alijka Jnf. 7.2,17.

19. Hann svarade honum, Far þu j Fride. Og sem hann var farenn fra honum einn hoalfann Fiordung af Mijlu uppa Landed,

20. Þeinkte Giezi Þienare Elisei Guds Manns, Siaa, minn Herra vægde þessum Syrlendska Naaman, so hann tok vid ongvo af honum, þad hann fært hafde, so sannarlega sem DROTTINN lifer, eg vil hlaupa epter honum, og taka vid nockru af honum.

21. Sijdann rann Giezi epter Naaman. Enn sem Naaman saa, ad hann hliop epter sier þa steig hann af Kierrunne jmote honum, og mællte, Geingur þad riettelega til?

22. Hann svarade, Ja, Minn Herra sende mig til þijn, og liet seigia þier, Siaa, nu strax komu Tveir Sveinar af Spaamanns Bornum til mijn, fra Ephraims Fialle, gief þeim eitt Centener Silfurs, og Tvenn helgra Daga Klæde.

23. Naaman svarade, Eg bid, tak Tvo Centener. Og hann neydde hann til, og batt Tvo Centener Silfurs j Tveimur Seckium, og Tvenn Hoatijda Klæde, og skipade til Tvo af sijnum Sveinum, þeir baaru þad fyrer honum.

24. Og sem hann kom til Ophel, þa tok hann þad af þeirra Hondum, og lagde assijdes j Hwsed, enn liet Mennena fara.

25. Enn sem þeir voru j burtu, þa gieck hann fyrer sinn Herra.

26. Og Eliseus sagde til hans, Hvadann komstu Giezi? Hann sagde, Þinn Þienare hefur hvorke geinged hingad nie þangad. Hann svarade, Munde mitt Hiarta ecke a (b) Ferd, þa Madurenn snere aptur vr sijnum Vagne jmote þier? Var þad þa Tijme, ad taka Silfur og Klædnad, Vidsmiors Garda, og Vijngarda, Saude, Naut, Þræla og Ambaatter.

(b) (A ferd) Þad er, Hafer þu hvorge fared, hvørneun kiemur þad til, ad mitt Hiarta var a Ferd, og var hiaa Vagnenum.

27. Enn Naamans Lijkþraa skal festast vid þig, og þitt Afkvæme æfinnlega. Og hann gieck vt fra honum, Spitelskur lijka sem Sniaar.

# VI. Capitule.

Eliseus (I) lætur eina Øxe af Jaarne fliota uppe aa Vatnenu; (II) Veit aasetning þess Syrlendska Konungs; (III) aatte ad missa Lijfed, af þvi þar var so miked Hallære i Samaria.

I. Spaamannanna Born sogdu til Eliseum, Siaa, þesse Stadur, þar vier bwum hiaa þier, er oss ofþraungur.

2. Laat oss fara til Jordanar, og take hvør sier þar Trie, so vier mættum biggia oss þar eirn Stad þar vier bwum j, enn hann svarade, Fared þangad.

3. Og eirn sagde, Bid eg ad þu vilier fara med þijnum Þienorum. Hann sagde, Eg vil fara med.

4. Og hann for med þeim. Enn sem þeir komu til Jordanar, upphiuggu þeir Trie.

5. Og þa eirn fellde eitt Trie, þa fiell Jaarned j Vatned. Enn hann kallade upp, og sagde, Auvi, Minn Herra! þar med var þad lied.

6. Og Guds Madur svarade, Hvar fiell þad nidur? Og þa hann synde honum Stadenn, hio hann eitt Trie af, og snarade þvi þangad, þa flaut Jaarned.

7. Og hann sagde, Tak þad upp, og hann riette vt sijna Hond, og tok þad.

II. 8. Og Kongurenn af Syrlande stridde a Jsrael, og radgadest vid sijna Pienara, og sagde, Vier villium setia vorar Herbuder þar og þar.

9. Enn Guds Madur sende til Jsraels Kongs, og liet seigia honum, Vara þig, og far ecke til þess Stadar, þviad Syri hvijlast þar.

10. Þa sende Jsraels Kongur burt til þess Stadar sem Guds Madur sagde honum, forvarade hann, og hiellt þar Vaktara, og giorde þad ecke eitt sinn edur Tvær reisur ad eins.

11. Kongsins Hiarta af Syria sturladest þar yfer, og hann kallade samann sijna Pienara, og sagde til þeirra, Villied þier ecke seigia mier, hvør af voru Lide mun flyenn til Jsraelis Kongs?

12. Þa sagde eirn af hans Pienorum, Ecke so Minn Herra Kongur, helldur Eliseus sa Spamadur j Jsrael, hann seiger Jsraels Konge allt þad sem þu talar j þijnu Svefnherberge.

13. Hann sagde, So fared þangad og sioed hvar hann er, so eg meige senda þangad, og lata sækia hann. Og þeir undervijsudu honum og søgdu, Sia, hann er j Dothan.

14. Þa sende hann Hesta og Vagna, og mikenn Stirk. Og sem þeir komu þar um Nott, umkringdu þeir Stadenn.

15. Enn sem Pienare Guds Manns stood upp arla, ad hann bygge sig til ad ferdast vt, Og sia, þa la þar eirn Her um Borgena, med Hestum og Vognum. Pa sagde hans Sveirn til hans, Auvi, Minn Herra! Hvad skulum vid nu til giora?

16. Hann sagde, Ottast ecke, Pviad þeir eru fleyre sem eru med oss, enn þeir sem eru med þeim.

17. Og Eliseus badst fyrer, og sagde, DROTTinn! Luk upp hans Augum, ad hann meige sia. Og DROTTenn upplauk Sveinsins Augum, ad hann sa, Og sia, ad Fialled var fullt umbergis Eliseum af Elldlegum Hestum og Vognum.

18. Og sem þeir komu nidur til hans bad Eliseus og sagde, DROTTinn! Sla þetta Folk med Blindleika. Og DROTTinn slo þa med Blindu, epter Elisei Ordum.

19. Og Eliseus sagde til þeirra, Ecke er þetta Vegurenn, nie su Borgenn. Filged mier epter, Eg vil vijsa ydur til þess Manns, sem þier leited epter. Og hann leidde þa til Samariam.

20. Enn sem þeir voru komner j Samariam sagde Eliseus, DROTTinn! Luk þu upp þessara Augum, so ad þeir meige sia. Og DROTTenn upplauk þeirra Augum, so þeir sau, Og sia, þeir voru þa j midre Samaria.

21. Enn Jsraels Kongur, sem hann sa þa, þa sagde hann til Eliseum, Minn Fader! Skal eg sla þa?

22. Hann svarade, Ecke skalltu sla þa, Enn þa sem þu fangar med Sverde þijnu og Boga þa sømu matt þu sla. Set Braud og Vatn fyrer þa, so þeir meige eta og drecka, og lat þa fara til sijns Herra.

23. Pa var buenn til mikel Maaltijd. Og sem þeir høfdu eted og drucked þa liet hann þa fara, ad þeir fooru til sijns Herra. Og alldrei sijdann kom sa Strijdsher Syrlendskra j Jsraels Land.

III. 24. Og epter þetta skiede so, ad Ben Hadad, Kongur af Syria, droo samann allann sinn Her, og foor upp, og settest um Samariam.

25. Og þar var miked Hallære j Samaria. Og þeir satu um Stadinn so leinge, ad eitt Asnahøfud gillte attatijge Silfurpeninga, og eirn fiordungur af Kab med Dufna drit, fimm Silfurpeninga.

26. Enn sem Jsraels Kongur gieck ad Murnum, kallade ein Kvinna til hans, og sagde, Hialpa þu mier, Minn Herra Kongur!

27. Hann sagde, Hialpar ecke DRottinn þier, hvar med skal eg hialpa þier? Af Kornhlødunne, eda af Vijnþrungunne?

28. Og

28. Og Kongurenn sagde til hennar, Hvad skadar þig? Hun sagde, Þesse Kvinna sagde til mijn, Gief þinn Son framm, ad vid etum hann j Dag, enn a Morgun vilium vid eta minn Son.

29. So høfum vid soded og eted minn son. Og eg sagde til hennar a ødrum Deige, Tak nu þinn Son, og lat hann hingad, so ad vid etum hann, Enn hun hefur faled sinn Son.

30. En sem Kongurenn heyrde Kvinnunnar Ord reif hann sijn Klæde, þa hann gieck til Mwrsins. Þa sa allt Folked, ad hann var klæddur Seck jnnst a Lijkamanum.

31. Og hann sagde, Gud giøre mier þad og þad, ef Høfud Elisei, sonar Saphat, skal standa j Dag a hønum.

32. Og Eliseus sat j sijnu Hwse, og Olldungarner satu hia hønum. Og Kongurenn sende einn Mann undann sier. Enn adur enn Sendemadurenn kom til hans, þa sagde hann til Olldunganna, Hafed þier sied Hvornenn þesse Manndrapa sonur hefur sendt hingad, ad slijta af mier mitt Høfud? Siaed til, þegar Sendemadurenn kiemur, þa lated aptur Dyrnar, og hrinded hønum burt med Hurdenne, Siaed, Þytur Foota hans Herra kiemur epter hønum.

33. Enn sem hann var so ad tala vid þa, Sia, þa kom Sendemadurenn nidur til hans, og sagde, Sia, slijkt (a) Illt kiemur af DRottne, Hvad skal eg meir vona af DRottne.

(a) (Illt) Ja, so geingur Oss, þa vier þionum ydar Gude þier Acrlausu Spamenn, hvad betur oss gieck þa vier þionudum Baal! Jer. 44, 17.

# VII. Capitule.

Samaria er Skyndelega frelsud af DRottne fra sinne Storkostlegn Neyd og Hallære.

Enn Eliseus sagde, Heyred Ord DRottins, So seiger DROTTinn, A morgun, um þennann Tijma, skal eirn Mæler Similiu Miøls kosta eirn Sekel, og tveir Mæler Biggs eirn Sekel, j Borgarhlide Samaria.

2. Þa svarade eirn Riddare, vid hvørs Hønd ad Kongurenn studde sig, Guds Manne, og sagde, Og þo ad DROTTinn giørde Glugga a Himenenn, Hvornenn ma þetta verda? Hann sagde, Sia þar, þu skallt þad sia med þijnum Augum, og ecke eta þar af.

3. Og þar voru fiorer Lijkþraaer menn wte fyrer Dyronum fyrer Borgarhlidenu, og sa eine sagde til hins annars, Þvi vilium vier hier til Heliar bijda?

4. Þo vær þeinktum ad koma j Borgena, þa er þar Hallære j stadnum, so vier munum deya þar, Ef bijdum vier hier þa munum vier og so deya. So latum oss nu ganga af stad, og falla til Hers þeirra Syrlendsku, Ef þeir lata oss lifa, þa lifum vier. Enn slae þeir oss j hel, þa erum vier dauder.

5. Þeir stodu upp ar-Deigis, ad þeir fære til Hers þeirra Syrlendsku. Og sem þeir komu fremst ad þeim stad sem Legurenn voru, Sia, þa var þar eingenn Madur.

6. Þvi DROTTinn hafde lated þa Syros heyra Hesta Gny, Vagna, og stoora Herlids Magt, so ad hvor sagde til annars, Siaed, Israels Kongur hefur leigt (sier til Lids) j moote oss Hethita Konga, og Kongana af Egyptalande, ad þeir kome yfer oss.

7. Og þeir tooku sig upp og flwdu j bytiid, og lietu sijnar Tialldbwder, Hesta, og Asna, epter j Herbudonum, so sem þad stood, og flydu med sijnu Lijfe þar fra.

8. Nu sem þeir Lijkþraau Menn komu j þann stad sem Herbwdernar voru, þa geingu þeir j eina Tialldbwdena, atu og drucku, og tooku þar Silfur, Gull og Klædnad, geingu j burt, og geymdu þad. Og komu aptur, og geingu j adra Tialldbwd, og tooku þar wt, og geingu burt, og geymdu þad.

9. Enn sa eine sagde til þess annars, Latum oss ecke so giøra, þesse Dagur er Dagur goods Bodskapar, Ef vier þeigium þar yfer, og bijdum allt til biarts Dags a Morgun,

gun, þa finnst vor Misgiorningur. Fyrer þvi forum nu af stad, ad vier komum og kunngiorum þetta j Kongsins Huse.

10. Og sem þeir komu, hroopudu þeir hiaa Porte Borgarennar, auglijsudu þeim, og sogdu, Vier komum j Herbwoder þeirra Syris, Og sia, þar var eingenn Madur, og einskis Manns Raust, Enn Hestar og Asnar voru bundner, og Tialldbwodernar so sem þær stoodu.

11. Pa var kallad a Portvaktarana, ad þeir skylldu seigia fra þessu þar jnne j Kongsins Huse.

12. Og Kongurenn stood upp um Nottena, og sagde til sinna Pienara, Leated ydur seigia Hvornenn þeir Syri hondla vid oss. Þeir vita, ad vier Hungur lijdum, og eru utgeingner af Herbwodonum, og leynast j Morkum ute, og hugsa, Pa þeir ganga ut af Stadnum þa vilium vier hondla þa lifande, og komast j Borgena.

13. Pa svarade eirn af hans Pienorum, og sagde, Take Menn þa fimm Hesta sem afhleypis eru þar jnne, hvorier ad epter eru (Sia, þeir eru epter ordner þar jnne af ollum þeim Fiolda j Israel, hvorier aller eru j burt) leatum oss senda þa og umskoda.

14. Sijdann tooku þeir Tvo Vagna med Hestum, og Kongurenn sende þa til Syrlendskra Herbwoda, og sagde, Fared og skoded.

15. Og sem þeir foru epter þeim til Jordanar, Sia, þa lea fullt um alla vegu af Kierum og Klædum, er Syri hofdu kastad fra sier, þa þeir flyttu sier. Enn sem Sendemenn komu aptur, og undervijsudu þetta Kongenum,

16. Þa Gieck Folked ut, og rænte Herbwoder þeirra Syris. Og þar kostade Mæler Similiu Miols eirn Sekel, og tveir Mælerar Biggs eirn Sekel, epter Ordum DRottins.

17. Enn Kongurenn tilsette þann Riddara ad vera j Borgarhlide vid hvors Hond Kongur hafde studt sig, og Folked foottrad hann til Bana j Borgarhlidenu, so sem Guds Madur hafde sagt, þa Kongurenn gieck ofann til hans.

18. Og þad skiede sem Guds Madur sagde til Kongsins, þa hann so sagde, A Morgun um þennan Tijma skulu tveir Mælerar Biggs kaupast fyrer eirn Siklum, og eirn Mæler Similiu Miols fyrer eirn Sikel, j Samaria Borgarhlide.

19. Og sa Riddare sem svarad hafde Guds Manne, og sagt, Sia, þo DROTTinn giore Glugga a Himnenum, Hvornenn mætte þvilijkt skie? Hann svarade, Sia, þu skallt med þijnum Augum horfa a þad, enn ecke eta þar af.

20. Og þad skiede hann so, þviad hann vard foottrodenn af Folkenu j Borgarhlidenu, so hann liet Lijfed.

## VIII. Capitule.

(I) Hin Sunamitiska Kona fær sitt Hus og Akra aptur; (II) Benhadad liggur Siukur. (III) Joram og (IV) Ahasia, Konungar j Juda, koma til Rijkes.

I. Eliseus talade vid þa Kvinnu hvorrar Son hann hafde lifande giort, og sagde, Tak þig upp og far hiedann med þijnu Hyske, og vert utlend hvar þu kannt, Þviad DRottinn mun kalla Hallære, þad mun koma j Landed j Sio Aar.

2. Kvinnann bioo sig, og giorde sem Guds Madur sagde, og foor burt med sijnu Hyske, og utlendtist j Lande Philistinorum j Sio Aar.

3. Enn ad þeim Sio Aarum lidnum, þa kom Kvinnann aptur af Lande Philisteanna, Og hun gieck ut, ad kalla til Huss sijns og Akurs, fyrer Konge.

4. Enn Kongurenn var þa a tale vid Guds Manns Pienara Giezi, og sagde, Framm seig þu mier oll þau Stoorvirke sem Eliseus hefur giort.

5. Og j þvi bile sem hann sagde Konge Hvornenn hann hafde giort eirn Daudann Lifanda, Sia, þa kom su Kvinna j þann sama Punct, hvorrar Son ad hann hafde giort

giort lifande, og hroopade til Kongsins um sitt Hws og Akur. Pa sagde Giezi, Minn Herra Kongur, Þesse er su Kvinna, og þesse er hennar son, sem Eliseus lijfgade.

6. Pa spurde Kongurenn Kvinnuna, og hun sagde honum þad. Sijdann fieck Kongurenn til eirn Giellding, og sagde, Laat hana faa aptur allt þad henne til heyrer, So og alla Avoxtu Akursins, fraa þvi hun flyde Landed, og allt til þessa.

II. 7. Og Eliseus kom til Damascum. Pa laa Benhadad Syrlands Kongur siukur, og honum var undervijsad og sagt, ad Guds Madur være komenn þangad.

8. Pa sagde Kongurenn til Hasael, Tak giafer med þier, og gack jmot Guds Manne, og spyr DROTTinn ad fyrer hann, og seig, Hvort eg mune verda heill þessarar Sottar?

9. Hasael gieck jmote honum, og tok Gaafur med sier, og allra Handa Gots j Damasco, Fiorutijge Ulfallda Klifiar. Enn sem hann kom gieck hann framm fyrer hann, og sagde, Þinn Sonur Benhadad, Kongur j Syria, sende mig til þijn, og lætur seigia þier, Mun eg verda heill þessa Siukdoms?

10. Eliseus svarade honum, Far burt og seig honum, Þu skallt verda heill. Enn DROttinn hefur synt mier, ad hann mune vissulega deya.

11. Og Guds Madur harkade af sier, bar sig jlla, og griet.

12. Pa sagde Hasael til hans, Þvi grætur minn Herra? Hann svarade, Þvi eg veit þad Jlla sem þu munt giora Jsraels Bornum. Þu munt uppbrenna þeirra sterkar Borger med Ellde, og slaa þeirra Æskumenn jhel med Sverde, og deyda þeirra Ungborn, og sundur snijda þeirra þungadar Kvinnur.

13. Hasael svarade, Hvad er þinn Pienare, eirn Hundur, ad hann skal giora so stora Hlute? Eliseus sagde, DROttinn hefur opemberad mier þad, ad þu skuler verda Kongur j Syria.

14. Og hann gieck fra Eliseo, og kom til sins Herra, og hann sagde til hans, Hvad sagde Eliseus þier? Hann svarade, hann sagde mier ad þier skyllde batna.

15. Enn annars Dags þar epter tok hann eitt Sængarklæde, og dyfde þvi j Vatn, og breidde þad yfer sig, þa doo hann. Enn Hasael vard Kongur j hans Stad.

III. 16. A þvi Fimmta aare Joram, Sonar Achabs, Jsraels Kongs, vard Joram, Son Josaphat, Kongur j Juda.

17. Hann hafde Tvo Vetur um þrijtugt þa hann vard Kongur, og rijkte aatta aar j Jerusalem.

18. Og framm for epter Jsraels Konga Veige, so sem Achabs Hws giorde, þvi Dotter Achabs var hans Kvinna, og hann giorde þad sem DROTTne jlla lijkade.

19. Enn DROTTinn villde ecke fordiarfa Juda, sokum sijns Pienara Davids, so sem hann hafde talad til hans, ad giefa honum ætijd eitt Lios, a medal hans Barna.

20. Enn a hans Tijma fiellu Edomitar fra Juda, og settu eirn Kong yfer sig.

21. Þviad Joram for j giegnum Zair, og aller Vagnarner med honum, og hann tok sig upp um Nott, og sloo þa Edomita sem voru j kringum hann, So og lijka Hofdingia yfer Vognonum, so ad Folked flyde til sinna Heimela.

22. Þvi fiellu Edomitar fra Juda allt til þessa Dags. Og Libna fiell og so fra a þeim sama Tijma.

23. Hvad meira er ad seigia um Joram, og allt þad hann giorde, Sia, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

24. Og Joram andadest med sijnum Fedrum, og var jardadur med sijnum Fedrum j Borg Davids. Enn hans Son Ahasia vard Kongur j hans Stad.

IV. 25. A þvi Tolfta aare Joram, Sonar Achabs, Jsraels Kongs, vard Ahasia, Son Joram, Kongur j Juda.

26. Ahasia hafde Tvo um Tvijtugt þa hann

hann vard Kongur, og rijkte eitt aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Athalia, Dotter Amri Israels Kongs.

27. Og hann gieck a Vegum Achabs Hwoss, og giorde þad sem DROTTne jlla lijkade, so sem Achabs Hws, Þvi hann var mægdur Achabs Hwse.

28. Og hann foor j Strijd med Joram, Syne Achabs, a mote Hasael, Konge af Syrlande, til Ramoth j Gilead, enn þeir Syrlendsku slogu Joram.

29. Þa snere Joram Kongur aptur ad laata lækna sig j Jesreel, af þeim Saarum sem þeir Syri hoffdu veitt honum j Rama, þa hann bardest vid Kongenn af Syria. Og Ahasia, Sonur Joram, Juda Kongur, foor ofann til fundar vid Joram, Son Achabs, til Jesreel, þvi hann laa kraankur.

## IX. Capitule.

Jehu er (I) smurdur til Kongungs yfer Israel, og (II) slær Joram Israels Kong ihel; (III) Ahasia Juda Kong; og (IV) Jesabel, Drottningena i Israel.

1 Og Eliseus Spaamadur kallade a eirn Spaamanna Son, og sagde til hans, Gyrd þijnar Lendar, og tak þessa Vidsmiors Krws med þier, og far til Ramoth j Gilead.

2. Og þa þu kiemur þangad, þa munt þu þar sia Jehu, Son Josaphat, Sonar Nimsi. Gaack þu þar jnn, og biod þu honum ad standa upp a medal sinna Brædra, og leid hann jnn j þad jnnsta Herberge.

3. Og tak Vidsmiors Krwsena, og helltu yfer hans Hofud, og seig, So seiger DROTTinn, Eg hefe smurt þig til Kongs yfer Israel. Og þu skallt upplaata Dyrnar og flya, og tefia ecke vid.

4. Og Sveirnenn, Spaamannsins Þienare, foor burt tul Ramoth j Gilead.

5. Og sem hann kom þangad jnn, Sia, þa saatu Hershofdingiar þar, sem setter voru yfer Herinn. Og hann sagde, Eg hefe nockud ad seigia þier, Hofudsmadur! Jehu sagde, Hvorium a medal Vor allra? Hann sagde, Þier Hofudsmann.

6. Þa stood hann upp, og gieck jnn, Enn hann hellte Vidsmiorenu yfer hans Hofud, og sagde til hans, So seiger DROTtinn Israels GUD. Eg hefe smurt þig til Kongs, yfer DROTTins Folk Israel.

7. Og þu skallt slaa Hws Achabs þijns Herra, so eg hefne Spaamannanna Blods, minna Þienara, og allra DROTTins Þienara Blods, af Jesabels Hende.

8. So ad allt Achabs Hws eydeleggist. Og eg vil uppræta af Achab þann sem pissar j Vegg, og þann jnneluckta, og þann forlaatna j Israel.

9. Og eg vil giora Achabs Hws eins so sem Hws Jeroboams, Sonar Nebat, og so sem Hws Baesa, Sonar Ahia.

10. Og Hundar skulu upp eta Jesabel a Jesreels Akre, og eingenn skal jarda hana. Og hann liet upp Dyrnar og flyde.

11. Og sem Jehu gieck vt til sijns Herra Þienara, þa sogdu þeir til hans, Geingur vel til? Þvi kom þesse hinn (a) Galde til þijn? Hann svarade þeim, Þier þecktud Mannenn vel, og so hvad hann sagde.

(a) (Galde) So kielldu þeir Ogudlegu Guds Spaamenn, lijka sem enn nu a þessum Deigi skiedur.

12. Þeir svorudu, Þad er ecke satt, Seig þu oss þad. Hann sagde, So og so talade hann til mijn, og sagde, so seiger DROTTinn, Eg hefe smurt þig til Kongs yfer Israel.

13. Þa hlupu þeir til, og hvor tok sijn Klæde, og breiddu þau under hann, a þær (b) haasu Troppur. Og bliesu j Basunur, og sogdu, Jehu er ordenn Kongur.

(b) (Haasu Troppur) Hier kann mann þeinkia, ad þar hafe vered einn Stoll, edur Haasæte fyrer Valldstiornarann j Stadnum, glampande svo sem af Fijla Beine, þar hafa þeir sett Jehu, enn med þvi Kongleg Prakt kunne ecke so snøggt ad tilbuast med ofnum Tiolldum, edur odru, þa breiddu þeir under hann sijn Klæde.

II. 14. Epter þetta giörde Jehu, Son Josaphat, Sonar Nimsi, eitt Scattmoal a mote Joram. Enn Joram sat um Ramoth j Gilead med allann Jsrael, mote Hasael, Konge af Syrlande.

15. Og Kong Joram var þa komenn aptur, ad lœta grœda sig j Jesreel, af þeim Scarum sem Syri veittu hönum, þa hann bardest vid Hasael Kong af Syria. Og Jehu sagde, Ef ydur so lytst, þa skal eingenn undann komast af Stadnum, ad fara og bera niosn um þetta til Jesreel.

16. Og hann liet fœra sig, og ferdadest til Jesreel, þviad Joram lœ þar. So og var Ahasia Kongur Juda ofann farenn ad siœ Joram.

17. Enn sem Vaktarenn, sem var uppa Jesreels (Borgar) Turne, sœ Flock Jehu komanda, þa sagde hann, Eg sie eirn Flock, Pa svarade Joram, Kalla þu a eirn Reidmann, og send jmote þeim, og seig, Er Fridur?

18. Sendemadurenn reid jmote hönum, og sagde, So seiger Kongurenn, Er Fridur? Jehu svarade, Hvad vardar þig um Frid? Snu þier bak epter mier. Vaktarenn kunngiörde þad, og sagde, Sendemadurenn kom til þeirra, og kiemur ecke aptur.

19. Pa sende hann eirn annann Mann a Heste. Og sem hann kom til hans, sagde hann, So seiger Kongurenn, Er Fridur? Jehu sagde, Hvad liggur þier Magt a Fride, snu þier bak epter mier.

20. Vardhalldsmadurenn kunngiörde þad, og sagde, Hann kom til þeirra, og kiemur ecke aptur. Og þad er För, lijka sem För Jehu, Sonar Nimsi, þvi hann fer lijka sem hann være galenn.

21. Pa sagde Joram, Spanned mijna Hesta fyrer Vagn. Og þeir spenntu fyrer hans Vagn. Og þeir ferdudust vt, Joram Jsraels Kongur, og Ahasia Juda Kongur, hvor a sijnum Vagne, ad koma til mots vid Jehu. Og þeir fundu hann a Akre Naboth Jesreeliter.

22. Og þa Joram sœ Jehu, sagde hann, Er Fridur Jehu? Hann svarade, Hvada Fride? Hoordoomar Moodur þinnar Jesabel og hennar Fiolkinge vaxa alltijd.

23. Pa snere Joram sinne Hende, og flyde, og sagde til Ahasia, Svik eru a ferdum, Ahasia!

24. Og Jehu þreif eirn Boga, og laust Ør millum Handleggia Joram, so ad Pijlann flaug j giegnum hans Hiarta, og hann fiell j sijna Kierru.

25. Og hann sagde til Riddarans Bidekar, Tak hann, og snara þu hönum a Akurpart Naboth Jesreeliter. Pviad þad man eg, ad vid forum j einum Vagne epter hans Fodur, ad DROTTenn upplypte þessum þunga yfer hann.

26. Hvad skal gillda, sagde DROttinn, Eg vil bitala þier a þessum Akre, Naboths Blod og hans Barna sem eg sœ j Giær? Par fyrer tak hann nu, og kasta hönum a Akurenn, epter Ordum DROTTins.

III. 27. Enn sem Ahasia, Juda Kongur, sœ þad, þa flyde hann a Veigenn, til Grasgards Hwssens. Enn Jehu sokte epter hönum, og baud og so ad drepa hann upp a Vagnenum allt til Gur, sem liggur hiœ Jeblaam, enn hann flyde til Megiddo, og doo þar.

28. Enn hans Sveinar lietu flytia hann til Jerusalem, og jordudu hann j sinne Grof, med hans Forfedrum, j Borg Davids.

29. Enn Ahasia Rijkte yfer Juda a þvi Ellefta oare Joram, Sonar Achabs.

IV. 30. Enn sem Jehu kom til Jesreel, og Jesabel fornam þad, fegrade hun sitt Andlit, og prydde sitt Hofud, og giægdest vt um Vindaugad.

31. Enn sem Jehu kom under Stadar Ported, sagde hun, Gieck vel Simri, sem ad drap sinn Herra?

32. Og hann leit upp ad Glugganum, og sagde,

sagde, Hvor er hier hiaa mier? Pa sneru
sier tveir eda þrijr Gielldingar til hans.
33. Hann sagde, Hrinded henne ofann.
Og þeir kostudu henne ofann, so ad hennar
Blood stockrist a Veggena, og a Hestana, og
hun vard under trodenn.
34. Enn sem hann var jnn komenn, og
hafde eted og drucked, sagde hann, Sioaed þo
þa enu Bolvudu, og jarded hana, þvi hun
er Kongs Dootter.
35. Enn sem þeir fooru af stad, og villdu
jarda hana, fundu þeir ecke par af henne,
utann Hausskielina, og Fæturnar, og hennar
Loofa.
36. Og þeir komu aptur og kunngiordu
honum þad. Hann svarade, Þetta er þad
sem DROTTinn talade fyrer sinn Þienara
Eliam Thesbiten, seigiande, Hundar skulu
eta Jesabels Holld a Jesreels Akre.
37. So vard Jesabels Hræ lijka sem
Opeckt a Akre, a Jesreels Akre, so ad eingenn
moatte þad seigia, Þetta er Jesabel.

## X. Capitule.

(I) Um Syne Achabs; (II) Brædur Ahasiæ. (III) Baals Prestar eru Drepner af Jehu, hver ed (IV) blijtur Blessan af DRottne; enn (V) syndgar þo fyrer DRottne, og sofnar med sijnum Fedrum.

1. Achab oatte Siotijge Sonu j Samaria,
Og Jehu skrifade Brief, og sende
þad j Samariam, til þeirra Yppurstu af
þeim stad Jesreel, og til þeirra Ellstu, og til
Foosturfedra Achabs, so loatande.
2. Þa þesse Brief koma til ydar þier sem
hafed ydars Herra Sonu hiaa ydur, Vagna,
Hesta, Sterkar Borger, og Herklæde,
3. Þa sioaed (ydur um) Hvor þar sie
bestur og hendtastur, af Sonum ydars Her-
ra, setied hann a Stool hans Fodurs, og
strijded so fyrer ydars Herra Hwse.
4. Enn þeir urdu miog ootta slegner, og
sogdu, Sioa, Tveir Kongar stoodust ecke fy-
rer honum, hvornenn vilium vier þa standa?
5. Og þeir sem voru setter yfer Hwsed,
og yfer Borgena, og þeir Ellstu, og Foostur-
fedurner, sendu af stad til Jehu, og lietu
seigia honum, Vier erum þijner Þionar, vier
vilium giora hvad hellst sem þu seiger oss;
Ongvann vilium vier til Kongs setia, Gior
hvad þier lijkar.
6. Þa skrifade hann annad Brief til þeir-
ra, so loatande, So framt sem þier erud
mijner, og vilied þier hlyda minne Raust; Þa
afhofded Mennena ydars Herra Syne, og
færed mier þa a Morgun um þetta mund til
Jesreel. Enn Kongsins Syner voru siotijger
Menn (og þeir enu yppurstu j stadnum
foostrudu þa upp).
7. Og sem Briefed kom nu til þeirra, þa
tooku þeir Kongsins Syne, og sloatrudu sio-
tiju Monnum, og logdu þeirra Hofud j
Karfer, og sendu þau til hans j Jesreel.
8. Og sem Sendemadurenn kom og un-
dervijsade honum, og sagde, Þeir hafa fært
hingad Kongsins Barna Hofud, sagde
hann, Legged þau j tvær hrugur fyrer Dyr-
nar a Portenu til Morguns.
9. Enn sem hann gieck ut um Morgunenn,
gieck hann þangad, og sagde til alls Folk-
sins, Þier vilied endelega hafa riett? Sioa,
hafe eg giort Soattmoal j mote mijnum
Herra, og dreped hann, Hvor hefur þa slie-
ged alla þessa j hel?
10. So sioaed nu, ad þar er ecke neitt af
DROTTins Orde falled a Jord, sem
DROTTinn talade a moote Achabs Hwse,
og DROTTinn hefur giort so sem hann ta-
lade fyrer sinn Þien Eliam.
11. So sloo Jehu þa alla j hel, þa sem
epter lifdu af Achabs Hwse j Jesreel, oll
hans Mikelmenne, og alla hans Frændur,
og hans Presta, so leinge ad þar var honum
ecke eirn epter.
II. 12. Og hann took sig upp og foor af
stad, og kom til Samariam. Þar var eitt
Fioarhus a Veigenum.
13. Þar fann Jehu Ahasia Juda Kongs
Brædur,

Brædur, og sagde, Hvorier erud þier? Þeir
sogdu, Vier erum Ahasia Brædur, og vilium
nu fara ofann ad heilsa Bornum Kongsins
og Drottningarennar Bornum.
14. Og hann sagde, Grijped þa lifande.
Og þeir gripu þa lifande, og sloatrudu þeim
hioa þeim Brunne sem stood hioa Fioarhuse-
nu, Tvo Menn hins fimmta tugar, og lietu
ecke eirn Mann verda epter af þeim.
III. 15. Enn sem hann ferdadest þadann
fann hann Jonadab, son Rechab, hvor ed
mætte honum, og hann heilsade honum, og
sagde til hans, Er þitt Hiarta riett, so sem
mitt Hiarta er med þijnu Hiarta? Jonadab
svarade, Joa. Sie þad so, þa riett ad mier
þijna Hond. Og hann riette ad honum
Hondena, og liet hann sitia upp hioa sier j
Vagnenum.
16. Og sagde, Far med mier ad sioa
mijna Vandlæting vegna DROTTins.
Og þeir fluttu hann med honum a hans
Vagne.
17. Enn sem hann kom j Samariam, þa
sloo hann þa alla j Hel sem þar voru epter
ordner af Achab j Samaria, allt þar til
hann hafde eydelagt hann epter Orde DROT-
tins, sem hann sagde til Eliam.
18. Og Jehu samansafnade ollu Folkenu,
og liet seigia til þeirra, Achab dijrdkade Baal
lijtt, Jehu vill þiona honum betur.
19. Þar fyrer loated nu kalla samann hin-
gad til mijn alla Baals Spoamenn, alla hans
Þienara, og alla hans Presta, so ad ei ver-
de eins saknad, Þviad eg hefe miked offur
ad foornfæra Baal. Hvors sem saknad ver-
dur hann skal missa Lijfed. Enn Jehu gior-
de þetta til Klokleika, so ad hann feinge eyde-
lagt Baals Þienara.
20. Og Jehu sagde, Helged Baal þessa
Hoatijd, og loated uthroopa.
21. Og Jehu sende til allra Israelita, og
liet alla Baals Þienara koma, so þar var
ecke eirn epter sem ecke kom. Og þeir komu j
Baals Hus, so ad Baals Hus var fullt,
sem mest moatte jnne vera.
22. Þa sagde hann til þeirra sem setter
voru fyrer Klæda Hused, Bered ut Klæde
handa ollum Baals Þienorum. Og þeir
boaru ut Klædenn.
23. Þa gieck Jehu jnn j Baals Kyrkiu,
med Jonadab, syne Rechab, og sagde til
Baals Þienara, Rannsaked og sioaed til, ad
hier sie eingenn Þienare DROttins a medal
ydar, helldur alleinasta Baals Þienarar.
24. Enn sem þeir komu jnn, ad giora
Offur og Brennefoorner, þa sette Jehu oat-
tatijger Menn fyrer utann Dyrnar, og sag-
de, Ef þier loated nockurn af þeim Mounum
undann komast, sem eg gief nu under ydar
Hendur, þa skal þess sama Soal vera fyrer
hans Soal.
25. Þa er hann hafde utendad Brenne-
offred, þa sagde Jehu til Dravantanna, og
Riddaranna, Fared nu jnn, og dreped hvorn
Mann, og loated ongvann komast ut. Og
þeir sloon þa alla med Sverdseggium, og
Dravantarner og Riddararner kostudu þeim
burt. Og þeir geingu til Baals Kyrkiu
Borgar.
26. Og utboaru Skurgodenn, af Baals
Kyrkiu, og uppbrenndu hana.
27. Og þeir brutu sundur Baals Skur-
god med Baals Kyrkiu, og giordu eitt hei-
muglegt Roadhus þar af, allt til þessa Dags.
28. So eydelagde Jehu Baal af Israel.
29. Enn Jehu liet ecke af Jeroboams
Syndum, sonar Nebats, hvor ed Israel
kom til ad syndgast, ut af þeim Gullkoalfum
j BethEl og j Dan.
IV. 30. Og DROTTinn sagde til Jehu,
Sokum þess, ad þu hefur so mikla oastun-
dan lagt a ad giora þad sem mier hefur lijkad,
og þu giorder j moot Achabs Huse allt þad
sem j mijnu Hiarta bioo, þa skulu þijn Born
sitia a Israels stoole, inn til fiorda Lids.
V. 31. Enn þo geymde Jehu ecke, ad hann
geinge j DROTTins Logmoale, af ollu
Hiarta, Þvi hann linnte ecke af Jeroboams
Syndum, sem kom Israel til ad syndgast.

32. A þeim sama Tiima took DRottinn til ad lnata sier leidast Israel, Þvi Hasael sloo þa j ollum Israels Landamerkium.

33. Fra Jordan moot Solarennar uppkomu, og allt Land Gilead, Gad, Ruben og Manasse, fra Aroer, sem liggur hioa Arnon Læk, og Gilead, og Basan.

VI. 34. Enn hvad meira er ad seigia af Jehu, og allt þad hann hefur giort, og oll hans Magt, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

35. Og Jehu sofnade med sijnum Fedrum, og þeir jordudu hañ j Samaria. Og Joachas, hans son, vard Kongur j hans stad.

36. Enn sa Tijme sem Jehu rijkte yfer Israel j Samaria eru atta og Tuttugu Aar.

# XI. Capitule.

(I) Grimmleike Athaliæ DRottningar; (II) Joas Kongs Sonur er Kryndur.

I. Enn Athalia, Moder Ahasia, þa hun sna ad sinn sonur var daudur, took hun sig upp, og liet drepa allt Konunglegt Kin.

2. Enn Joseba, Dotter Jorams Kongs, Ahasia Syster, Hun took Joas, son Ahasia, og stal honum (undann) fra Kongsins Bornum, sem j hel voru sleigenn, med hans Fooſtru j Svefnherbergenu. Og hann var geymdur fyrer Athalia, so hann var ecke deyddur.

3. Og honum var leynt med henne, j Huse DROTTins, Sex Aar. Enn Athalia var DRottning j Landenu.

II. 4. Enn a þvi Siounda Aare sende Jojada ut, og took til sijn þa enu yppurstu yfer Hundrad, med Hofudsmonnonum, og Hirdmonnonum, og liet þa koma til sijn j DRottins Hus, og giorde Saattmaal vid þa, og took eirn Eid af þeim, j DROTTins Huse, og synde þeim Kongsins Son.

5. Og hann baud þeim, og sagde, Þetta er nu þad sem þier skulud giora, Þridie partur af ydur, sem (a) Þvottdagurinn til fellur, skal hallda Vord j Kongsins Huse.

(a) (Þvottdagurenn tilfellur) Þad voru þeir sem vara toku a Kongenum, ad þiena adra hvoria Viku, þa sa eine Flockur gieck fra Þienustunne, þa gieck sa annar til.

6. Og einn þridie partur skal vera hioa þvi Porte Sur, Og einn þridie partur hioa þvi Porte sem liggur a bak Strijdsmannanna, Þier skulud og hallda vord yfer Massa Hwse.

7. Enn tveir partar af ydur ollum, sem fra Sabbatenu sleppa, skulu hallda vord j Huse DROTTins, kringum Kongenn.

8. Og þier skulud vera j kringum Kongenn, og hvor med sitt Vopn j Hende. Og ef nockur geingur jnn a millum Radanna sa skal deya, Ad þier skulud vera hioa Kongenum, nær hann geingur ut og jnn.

9. Og Hundradshofdingiarner giordu allt þad sem Jojada Prestur baud þeim, og þeir toku sijna Menn med sier sem Þvottdagurenn tilfiell, med þeim sem Þvottdeigenum slepptu, og komu til Jojada Prests.

10. Enn Presturenn fieck Hofudsmonnonum Spiot og Skiolldu, sem aatt hafde David Kongur, og voru j Hwse DROttins.

11. Og Dravantarner stodu j kringum Kongenn, hvor med sinne Veriu j Hende, fra þvi Horne Hwssens til hægre Handar, til Hornsins til vinstre Handar mot Alltarenu, og til Hwssens.

12. Og hann liet Kongsins Son koma framm. Og hann sette Koronuna a hann, og afhendte honum (a) Vitnisburdenn, og þeir giordu hann til Kongs, og voru fagnande, og kloppudu Loofum samann, og sogdu, Kongurenn foae Luckü!

(a) (Vitnisburdenn) Þad var su Fimta Bok Moses, hvor ad Kongonum var a Hendur falenn.

13. Enn sem Athalia heyrde Hoareyste Folksins sem þangad hliop, þa kom hun til Folksins, j DROTTins Hws, og saast um.

14. Og sioa, þa stod Kongurenn vid Stolpann, so sem sidur var til, Enn Saungvararner og Trometararner hioa Kongenum, og allt Lands Folked var fagnande, og bliesu j Basunur. Pa reif Athalia j sundur sijn Klæde, og sagde, Upphlaup, Upphlaup.

15. Enn Jojada Prestur baud þeim Hundradshofdingium, hvorier ad setter voru yfer Herenn, og sagde til þeirra, Leided hana vt af Hwsenu j Gardinn, og hvor sem filger henne hann deye fyrer Sverde, Þvi Presturenn hafde sagt, Hun skal ecke deya j Drottins Hwse.

16. Og þeir logdu Hendur a hana, og hun gieck jnn þann Veg sem Hestarner geingu til Kongsins Hwss, og var þar drepenn.

17. Pa giorde Jojada eitt Saattmaal a millum DRottins og Kongsins, og Folksins, ad þeir skylldu vera DRottins Folk, So og lijka millum Kongsins og Folksins.

18. Pa gieck allt Landsfolked j Baals Kyrkiu, og nidur braut hans Alltare, og nidur braut hans Bilæte riett vel, og þeir sloou Mathan Baals Prest jhel fyrer Alltarenu. Enn Presturenn skickade nidur Embættum j Hwse DROTTins.

19. Og hann tok þa Yppurstu yfer Hundrad, og Hofudsmennena, og Hyrdmennena, og allt Folked Landsins, og þeir færdu Kongenn ofann fra DROTTins Hwse, og komu a Veigenn, þann (sem laa) fra Hyrdmanna Portenu, til Kongsins Hwss, og hann sette sig j Konganna Stool.

20. Og allur Landslydur vard gladur, og Borgenn stodvadest. Enn þeir sloou Athaliam til Dauds med Sverde j Kongsins Hwse.

21. Og Joas var Sio aara gamall þa hann vard Kongur.

## XII. Capitule.

(I) Joas Konungur i Juda rijker; (II) Hversu hann hagar sier vid Hasael; Og (III) um hans Dauda.

I. A þvi Siounda aare Jehu vard Joas Kongur, og rijkte Fiorutijge aar j Jerusalem. Hans Mooder hiet Sibea, af Bersaba.

2. Og Joas giorde þad sem riett var, og DROTTne vel þocknadest, so leinge sem Jojada Prestur lærde hann.

3. Utann þad, ad hann took ecke af Hædernar, þviad Folked færde Forner og brennde Reykelsenu enn þa a Hædonum.

4. Og Joas sagde til Kiennemannaña, Aller þeir Peningar sem helgader verda, og berast j DROTTins Hws, Peningar af hvorium sem frammgeingur, þeir Peningar sem hvor Madur giefur j Skatt fyrer sijna Saalu, og aller þeir Peningar sem hvor Madur offrar af friaalsu Hiarta, ad þeir skule berast j DROTTins Hws,

5. Pa (a) take Prestarner þa til sijn, hvor af sijnum Kunningium. Og af þvi skulu þeir endurbæta þad sem hrornar j DROTTins Hwse, hvar sem þeir fornema ad umbotar vid þurfe.

(a) (Take Prestarner) J þann Maata, ad þeir hafe uppskrifad j Registur, af hvorium, og hvonær þeir slijkt medtoku.

6. Enn þa Prestarner hofdu ecke endurbætt þad sem broted var a DROTTins Hwse, a þvi Pridia og Tuttugasta aare Joas Kongs,

7. Pa kallade Joas Kongur Jojada Prest, og Prestana, og sagde til þeirra, Hvi hafed þier ecke endurbætt þad sem hrornad er a Hwsenu, so skulud þier nu ecke taka þa Peninga til ydar, hvor af sijnum Kunningia, Enn legged þad framm til Musterisins Forbetrunar.

8. Og þetta samþycktu Prestarner, ad þeir skylldu ongva Peninga taka af Folkinu, og bæta þad sem þurfte af Musterenu.

9. Pa tok Jojada Prestur eina Hyrdslu, og giorde eitt Gat þar ofana, og sette hana hægrameigenn hioa Alltarenu, þar sem jnn var geinged j DROTTins Hws. Og þeir Prestar sem toku vara vid Proskolldenn logdu þar j alla þa Peninga sem færder voru til DROTTins Hwss.

 10. Enn

10. Enn sem þeir sáu, ad þar var allmiked Fie j Hyrdslunne, þa kom Kongsins Skrifare, og sa Ypparste Kiennemadur þar upp, og bundu Fied til samans, og reiknudu þad sem funded var fyrer DROTTins Hwse.

11. Og Menn gäfu þad Fie alldeilis yfer þa * sem erfidudu og stickader voru til DROttins Hwss, og þeir gäfu þad vot Triesmidonum sem biggdu og erfidudu uppa DROttins Hws, * þeim

12. Mwrmeistorum og Steinkloppörum, og þeim er keyptu Trie, og hoggua Steina, so ad þad sem broted var a DROTTins Hwse skyllde endurbætast, og allt þad sem þeir fundu ad þörf var ad endurbætast skyllde a Hwsenu.

13. Enn þo lietu Menn ecke giöra Silfur Skaler, Psalterium, Munnlaugar, Basunur, eda nockur Kier af Gulle, edur Silfre j DROTTins Hwse, af þeim Peningum sem bäruft til Hwss DROTTins.

14. Helldur var þad giefed þeim Arfides Monnum, ad þeir skylldu þar med endurbæta þad sem broted var af Hwse DROTTins.

15. Enn eige þurftu þeir Menn ad standa Reikningskap þar af, hvorium er Gialldeð var feinged til, ad þeir feinge þad Arfidismonnonum, helldur hondludu þeir uppa Trw.

16. Enn þad Fie af Skulldaoffre og Synda-Offre var ecke bored j DROTTins Hws, þvi þad heyrde Prestonum til.

II. 17. A þeim Tijma for Hasael, Kongurenn af Syria, upp, og heriade a (Borgena) Gath, og hann vann hana. Enn sem Hasael snere sijnu Andlite til ad fara upp til Jerusalem,

18. Þa tok Joas, Juda Kongur, allt þad hid Helgada, þad sem hans Forelldrar, Josaphat, Joram, og Ahasia, Kongar j Juda höfdu helgad, og þad hann hafde siälfur helgad, þar til allt þad Gull sem Menn fundu j DROTTins Hwss Fiehiodum, og j Kongsins Hwse, og sende til Hasael Syrlands Kongs. Vid þad hvarf hann fra Jerusalem.

III. 19. Hvad meira er ad seigia um Joas, og allt þad sem hann giorde, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

20. Og hans Pienarar töku sig upp, og giordu eirn Särttmäala, og dräpu hann j Hwsenu Millo, þar Mann geingur ofann til Silla.

21. Þviad Josabar, Son Simeath, og Josabad, Son Somer, hans Pienarar, þeir slöou hann jhel. Og hann var jardadur med hans Forfedrum j Davids Stad. Og Amazia, hans Son, vard Kongur j hans Stad.

# XIII. Capitule.

Um Rijkes Stiorn (I) Joachæ, og (II) Joæ Konunga i Israel: (III) Andlät Elisæi Spämanns.

I. A þvi Pridia og Tuttugasta äre Joas, Sonar Ahasia Juda Kongs, vard Joachas, Sonur Jehu, Kongur yfer Israel j Samaria j Seytian är.

2. Og hann framde þad sem DROttne jlla lijkade, og gieck epter Syndum Jeroboams, Sonar Nebat, sem kom Israel til ad syndgast, og hann liet ecke þar af.

3. Og Reide DROTTins gramdest yfer Israel, og hann gaf þa under Hendur Hasaels Kongs af Syria, og Benhadad Sonar Hasaels, so leinge sem þeir lifdu.

4. Enn Joachas bad til DROTTins Auglitis, og DROTTinn bænheyrde hann, þvi hann sä Israels Anaud, hvornenn Kongurenn af Syria þreyngde þeim.

5. Og DROttinn gaf Israel eirn Hiälparmann, sem þa frelste af Vallde Syrlendskra, so ad Israels Born biuggu j sijnum Tialldbwdum, eins og ädur.

6. Enn þo lögdu þeir ecke af Synder Jeroboams Hwss, hvor ed kom Israel til ad syndgast, helldur geingu þeir framm j þeim. Lundurenn j Samaria stod og so.

7. Þvi

7. Pvi þar var ecke fleyra epter orded af Joachas Folke helldur enn Fimmtijge Riddarar, og Tiju Vagnar, og Tiju Þusund Fotgaungulids. Þviad Syrlands Kongur hafde fyrerkomed þeim, og hafde giort þa sem Þreskiara Ryk.

8. Hvad meira er ad seigia um Joachas, og allt hvad hann giorde, og hans Magt, Sioa, þad er skrifad i Jsraels Konga Chronicu.

9. Og Joachas sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur j Samaria. Og hans Son Joas vard Kongur i hans Stad.

II. 10. A þvi Seytianda og Tuttugasta aare Joas, Juda Kongs, vard Joas, Son Joachas, Kongur yfer Jsrael j Samaria, Sextan aar.

11. Og hann giorde þad sem DRottne illa lijkade, og liet ecke af øllum Syndum Jeroboams, Sonar Nebats, sem kom Jsrael til ad syndgast, helldur gieck hann framm j þeim.

12. Enn hvad meira er ad seigia um Joas, og hvad hann giorde, og hans Magt, og hvørnenn hann stridde vid Amazia, Juda Kong, Sioa, þad er skrifad j Jsraels Konga Chronicu.

13. Og Joas sofnade med sijnum Fedrum. Og Jeroboam sat a hans Stoole. Enn Joas var jardadur j Samaria hioa Jsraels Kongum.

III. 14. Og Eliseus vard siukur, hvar af hann andadest. Og Joas Jsraels Kongur kom ofann til hans, og griet fyrer hønum, og sagde, Minn Fader! Minn Fader! Jsraels Vagn og hans Riddarar!

15. Enn Eliseus sagde til hans, Tak þinn Boga og Ørvar. Og sem hann took Bogann og Ørvarnar,

16. Sagde hann til Jsraels Kongs, Spanna þu upp Bogann med þinne Hende. Og hann uppspannade hann med sinne Hende. Sijdann lagde Eliseus sijna Hønd uppa Kongsins Hønd.

17. Og sagde, Opna Gluggann j moot Austre. Og hann opnade hann. Pa sagde Eliseus, Skioot. Og hann skaut. Hann sagde, Hioalpræđis Ør af DROTTne, Ein Sigur Ør j moot Syros, og þu munt sloa þa Syros j Aphek, þar til þeir verda ad øngvo.

18. Og hann sagde, Tak Pijlurnar. Og sem hann took þær, þa sagde hann til Jsraels Kongs, Sloa þu a Jordena. Og hann slooo j þriar reisur, og stood kirr.

19. Pad mijslikade Guds Manne vid hann, og sagde, Hefder þu sleiged Fimm eda Sex sinnum, þa skyllder þu hafa sleiged þa Syros, þar til þeir hefdu orded ad øngvo, Enn nu munt þu sloa þa j þriar reisur.

20. Enn sem Eliseus var nu Andadur, og þeir hofdu jardad hann, Pa fiell Strijdsfolk Moabitarum jnn j Landed, a þvi sama Are. Og þad skiede so, ad þeir jordudu eirn Mann. Og sem þeir sioau Strijds folked kostudu þeir Mannenum j Elisei Grøf.

21. Og sem hann kom þangad, og kom vid Bein Elisei, þa vard hann lifande, og stood uppa sijnar Fætur.

22. So þvingade nu Hasael, Kongurenn af Syria, Jsrael, so leinge sem Joachas lifde.

23. Enn DROTTinn var þeim nadugur, og sioa aumur a þeim, og snere sier til þeirra, sokum sijns Saattmaala, vid Abraham, Jsaac, og Jacob, og villde ecke eyda þeim, og kastade þeim ei fra sijnu Andlite, allt til þessarar stundar.

24. Og Hasael, Syrlands Kongur, andadest, og hans son Benhadad vard Kongur j hans stad.

25. Og Joas snerest vid, og took þa Stade af Benhadads Hasael sonar Hende sem hann hafde med Orløgum under sig teked fra Joachas, hans Fødurs Hende. Og j þriar reisur sloo Joas hann, og kom aptur Borgunum under Jsrael.

# XIV. Capitule.

Um Rijkes Stiorn Konunganna, (I) i Juda, Amaziæ, og (II) J Jsrael, Jeroboams Hins Annars.

1. Adru Aare Joas, sonar Joachas, Jsraels Kongs, vard Amazia Kongur, son Joas, Kongs yfer Juda.

2. Hann hafde fimm um tvitugt þa hann vard Kongur, og rijkte Niju og Tuttugu Aar j Jerusalem, hans Moder hiet Joadan, af Jerusalem.

3. Og hann giorde þad sem DROTTni vel lijkade. Enn þo ei sem hans Fader David, helldur eins so sem hans Fader Joas.

4. Þviad ecke voru afteknar þær Hæder, Helldur offrade Folked, og brennde Reykelse enn nu a Hædum.

5. Enn sem hann vard nu megtugur j sijnu Kongsrijke, þa took hann af Lijfe þa Þienara sem sleiged hofdu Kongenn hans Fodur j Hel.

6. Enn Sonu þessara Manndraapara drap hann ecke, epter þvi sem þad stendur skrifad j Moses Logmaals Book, þar DROTTinn baud so, og sagde, * Forelldrarner skulu ecke deya fyrer Saker Barnanna, Og eige Bornenn fyrer Saker Forelldranna, helldur skal hver og eirn deya fyrer sijna Synd.

* 5 B. Mos. 24, 16.

7. Hann sloo og Tiju Þusund af þeim Edomitum, j Sallt-dalnum, og vann Borgena Sela med strijde, og kallade hana Jaktheel, jnn til þessa Dags.

8. Sijdann sende Amazia Menn til Joas, sonar Joachas, sonar Jehu, Kongsins j Jsrael, og liet seigia honum, Kom hier og sioeþ hvor ockar annann.

9. Enn Joas, Jsraelis Kongur, sende bod til Amazia, Juda Kongs, og liet seigia honum so, Þyrnebuskurenn, sem er j Libanon, sende bod til Cedrus Triesins j Libanon, og liet seigia honum, Gief mijnum Syne þijna Dotter til Eigenkonu. Enn Villudyrenn j Libanon skooge hlupu yfer Þyrnebuskinn, og troadu hann under Footum.

10. Þu hefur sleiged þa Edomita, og þvi upphefst þitt Hiarta, Hallt þu þeirre hroosan, og sit heima, Þvi sæker þu epter Oluc ku? so ad þu faller, og Juda med þier?

11. Enn Amazia hlydde ecke. So foor Joas Jsraels Kongur upp, og þeir saust, hann og Amazia Juda Kongur, j Bethsemes, sem liggur j Juda.

12. Enn Juda fiell fyrer Jsrael, so ad hver flyde til sijns Heimelis.

13. Og Joas, Jsraels Kongur, Handtook Amazia Juda Kong, son Joas, sonar Ahasia, j Bethsemes. Og hann kom til Jerusalem, og reif nidur Jerusalems Muurveggé, fra Ephraims Porte, og allt til Hornhlids Portsins, Fiogurhundrud Alna langt.

14. Og hann took allt Gull og Silfur, og þau Kier sem fundust j DROTTins Huse, og alla Fiesioodu ur Kongsins Herberge, Hier med took hann og hans Born j Gisling, og foor so aptur j Samariam.

15. Hvad meira er ad seigia af Joas, hvad hann giorde, og hvor hans Stirkur var, og j hvorn maata ad hann strijdde j moot Amazia Juda Konge, Sioa, þad er skrifad j Jsraels Konga Chronicu.

16. Og Joas sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur j Samaria, a medal Jsraelis Konga, Og hans son, Jeroboam, vard Kongur j hans stad.

17. Amazia, son Joas, Kongur Juda, lifde epter Dauda Joas, sonar Joachas, Jsraels Kongs, Fimmtan Aar.

18. Hvad meira er ad seigia af Amazia, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

19. Og þeir giordu Samtmaala j moot honum j Jerusalem. Enn hann flyde til Lachis, Þa sendu þeir epter honum til Lachis, og draapu hann þar.

20. Og þeir færdu hann a Hestum, og hann var greftradur j Jerusalem, hiaa hans Forfedrum j Davids stad.

21. Og

21. Og allur Juda Lydur took Asaria, þa hann var Sextan Aara gamall, og giordu hann ad Konge, j stadenn sijns Fodurs Amazia.

22. Hann biggde upp Elath, og lagde hann aptur til Juda, epter þad Kongurenn var sofnadur med sijnum Fedrum.

II. 23. A þvi Fimmtanda Aare Amazia, sonar Joas, Kongsins j Juda, vard Jeroboam, son Joas, Kongur yfer Jsrael, j Samaria, Eitt og Fiorutijge Aar.

24. Og hann giorde þad sem DROTTne illa lijkade, og liet ecke af øllum Syndum Jeroboam, sonar Nebats, hvor ed Jsrael kom til ad syndgast.

25. Enn hann vann aptur Jsraels Landamerke, fra Hemath og jnn til Hafsins, sem ad liggur vid þa sliettu Mork, Epter DROttins Jsraels Guds Orde, sem hann talade fyrer sinn Þienara Jona, son Amithai, Spaamann, sem var af Gath Hepher.

26. Þvi DROTTinn leit til Jsraelis Anaudar Vesalldar, ad þeir Jnneluktu og Fyrerlaatnu j burtu voru, og þar var eingenn Hiaalpare j Jsrael.

27. Enn DROTTinn hafde ecke sagt, ad hann villde eydeleggia Jsraelis Nafn under Himnenum, og hiaalpade þeim fyrer Jeroboam, son Joas.

28. Hvad meira er ad seigia um Jeroboam, og allt þad hann giorde, og hans Magt, hvornenn hann strijdde, og hvornenn hann vann aptur Damascum og Hemath til Juda j Jsrael, Sioa, þad er skrifad j Jsraels Konga Chronicu.

29. Og Jeroboam sofnade med sijnum Fedrum Jsraels Kongum, og hans son Sacharia vard Kongur j hans stad.

## XV. Capitule.

(I) Um Asaria Juda Kon: um þa Jsr: Kon: (II) Sacharias; (III) Sallum; (IV) Menahem; (V) Pekahia; (VI) Pekah; og (VII) um Jotham Juda Konung, og hans Rikes Stiorn.

I. 1. A þvi Siounda og Tuttugasta Aare Jeroboams Jsraels Kongs, vard Asaria Kongur, sonur Amazia Juda Kongs.

2. Og hann var Sextan Aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Tvo og Fimmtijge Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Jechalia, af Jerusalem.

3. Og hann giorde þad sem DROTTni vel þocknadest, j allann maata sem hans Fader Amazia.

4. Fyrer utann þad þeir af tooku ecke Hæderna, Þvi Foolked offrade enn þa og brennde Reykelse a Hædonum.

5. En DROTTinn plaagade Kongenn, so hann vard Lijkþraar allt til sijns Dauda, og bioo j einu sierlegu Huse. Enn Jotham, Kongs son, stioornade Husenu, og dæmde Folked j Landenu.

6. Hvad meira er ad seigia um Asaria, og allt hvad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

7. Og Asaria sofnade med sijnum Fedrum, og Menn jordudu hann j Davids stad hiaa hans Forfedrum. Enn hans son Jotham vard Kongur j hans stad.

II. 8. A þvi þrijtugasta og aattunda aare Asaria, Juda Kongs, vard Sacharia, son Jeroboams, Kongur yfer Jsrael, j Samaria, Sex Maanude.

9. Og hann giorde þad sem DROTTne mislijkade, eins og hans Fedur hofdu giort. Hann liet ecke af Syndum Jeroboams, sonar Nebat, hvor ed kom Jsrael til ad syndgast.

10. Og Sallum, son Jabes, giorde Samtmaala j moote honum, og sloo hann fyrer Folkenu, og drap hann, og vard Kongur j hans stad.

11. Hvad fleyra er ad seigia af Sacharia, Sioa, þad er skrifad j Jsraels Konga Chronicu.

12. Og þetta er þad sem DROTTinn talade til Jehu, Þijner syner skulu sitia a

Israels Stoole jnn til Fiorda Lids, og þad skiede so.

III. 13. Og Sallum, son Jabes, tok Kongdom a þvi Nijtianda og Tuttugasta Aare Asaria Kongs Juda, og rijkte eirn Moanud j Samaria.

14. Þviad Menahem, son Gadi, foor upp froa Thirza, og kom til Samariam, og sloo Sallum, son Jabes, j hel, j Samaria, og vard Kongur j hans stad.

15. Hvad meira er ad seigia af Sallum, og um þann Soattmoala sem hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

16. A þeim tijma sloo Menahem Tiphsa, og alla þa sem voru þar jnne, og þeirra Landamerke af Thirza, Fyrer þvi, ad þeir villdu ecke loata upp fyrer honum. Og hann drap allar þeirra þungadar Kvinnur, og sneid þær j sundur.

IV. 17. A þvi Nitianda og Tuttugasta Aare Asaria, Juda Kongs, vard Menahem, son Gadi, Kongur yfer Israel, j Tiju Aar, i Samaria,

18. Og hann giorde þad sem DROTTne jlla lijkade, þvi hann liet ecke af Syndum Jeroboam, sonar Nebat, a ollum sijnum Dogum, hvor ed kom Israel til ad syndgast.

19. Og Phul, Kongurenn af Assyria, kom j Landed, og Menahem skeinkte Phul Þusund Centener Silfurs, ad hann hiellde med honum, og stirkte hann til Rijkis.

20. Og Menahem lagde (Fie) giolld a þa rijkustu j Israel, so ad hvor af þeim skyllde giefa Fimmtijge Siklos Silfurs, ad hann giæfe þa Kongenum af Assyria. Sijdann droo Kongur af Assyria heim aptur, og stadnæmdest ecke j Landenu.

21. Hvad meira er ad seigia um Menahem, og allt þad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

22. Og Menahem sofnade burt med sijnum Fedrum, og Pekahia, hans Son, vard Kongur j hans Stad.

V. 23. A þvi Fimmtugasta oare Asaria, Kongsins j Juda, vard Pekahia, Son Menahem, Kongur yfer Israel, j Samaria, j Tvo oar.

24. Hann giorde þad sem DROTTne jlla þocknadest. Þvi hann liet ecke af Jeroboams Syndum, Sonar Nebats, sem kom Israel til ad syndgast.

25. Og Pekah, Son Remalia, eirn Riddare, giorde uppreist j moote honum, og sloo hann jhel j Salnum, j Kongs Hwsenu j Samaria, med Argob og Arie, og Fimmtijge Menn med honum af Gileads Bornum, og hann vard Kongur j hans Stad.

26. Hvad meira er ad seigia af Pekahia, og allt þad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

VI. 27. A þvi odru og Fimmtugasta oare Asaria, Kongs Juda, vard Pekah, Son Remalia, Kongur yfer Israel j Samaria, j Tuttugu oar.

28. Og hann giorde þad sem DROTTne jlla lijkade, Þvi hann liet ecke af Syndum Jeroboam Sonar Nebat, sem ad Israel kom til ad syndgast.

29. Enn j Pekah Israels Kongs Tijd kom Tiglath Pilleser, Kongur af Assyria, og took Hion, AbelBethMaecha, Janoha, Kedes, Hazor, Gilead, Galilea, og allt Land Nephthali, og flutte þa burt j Assyriam.

30. Enn Hosea, Son Ela, giorde Soattmoala moote Pekah, Syne Remalia, og sloo hann jhel, og vard Kongur j hans Stad, a þvi Tuttugasta oare Jotham, Sonar Usia.

31. Hvad meira er ad seigia um Pekah, og allt þad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Israels Konga Chronicu.

VII. 32. A þvi odru oare Pekah, Sonar Remalia Israelis Kongs, vard Kongur Jotham, Sonur Usia Juda Kongs.

33. Og hann var Fimm og Tuttugu oara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte

Sextan

Sextan aar j Jerusalem. Hans Moder hiet Jerusa, Dotter Zadoch.

34. Og hann giorde þad sem DROTTne vel lijkade j allann maata, so sem hans Fader Usia hafde giort.

35. Nema þad, hann took ecke af Hæderner, Þvi Folked offrade enn þa, og brennde Reykelse a Hædum. Hann uppbiggde þad haa Port a Hwse DROTTins.

36. Hvad meira er ad seigia um Jotham, og allt þad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

37. A þeim Tijma hoof DROTTinn upp ad senda j Rijke Juda Rezin, Konginn af Syria, og Pekah Son Remalia.

38. Og Jotham sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur hiaa sijnum Fedrum j Borg sijns Fodurs Davids, og Achas hans Son vard Kongur j hans Stad.

## XVI. Capitule.

Um Achas Kon: i Juda, og hans Rijkes Stiorn.

A Seytianda aare Pekah, Sonar Remalia, vard Kongur Achas, Sonur Jotham Kongsins af Juda.

2. Achas var Tuttugu aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Sextan aar j Jerusalem. Og hann giorde ecke þad sem DROTTne hans Gude lijkade, so sem hans Fader David.

3. Þviad hann gieck a Vegum Jsraels Konga. Þar til med liet hann sinn Son fara j gegnum Elldenn, epter Heidingianna Svivirdingum, hvoria DROTTJNN hafde wtrekid fyrer Jsraels Bornum.

4. Og hann færde Foorner og brennde Reykelse a Hædum og Hæalsum, og under hvoriu blomgudu Trie.

5. J þann Tijma fooru þeir Rezin, Kongur af Syria, og Pekah, Son Remalia, Kongur af Jsrael, upp, ad beriast * a Jerusalem, og þeir settust um Achas, enn þeir gaatu ecke unned hann. * heria

6. A þeim sama Tijma vann Rezin, Kongur af Syria, Eloth, aptur under Syriam, enn rak a burt Gydinga af Eloth, enn þeir Syri komu og binggu þar allt til þessa Dags.

7. Achas sende Bod til Tiglath Pilleser, Kongsins af Assyria, og liet seigia honum, Eg er þinn Þienare, og þinn Son, Kom upp hingad, og hiaalpa mier af Hende þeirra, Syrlands Kongs og Jsraels Kongs, hvorier upp hafa reist sig a moote mier.

8. Og Achas took þad Silfur og Gull sem fannst j Hwse DROTTins, og j Fiaarhyrdslum Kongsins Hwss, og sende þetta Kongenum af Assyria til eirnrar Skeinkingar.

9. Og Kongurenn af Assyria hlydde honum, og foor upp til Damascum, og vann hana, og flutte hana a burt til Kir, og sloo Rezin jhel.

10. Enn Achas Kongur foor jmoot Tiglath Pilleser, Kongenum af Assyria, til Damascum. Og sem hann saa eitt Alltare, sem var j Damasco, þa sende Kong Achas Mind þess sama Alltaris, og hvornenn þad var giort, til Uria Kiennemanns.

11. Og Uria Prestur biggde eitt Alltare, og giorde þad epter þvi sem Achas Kongur sende honum fra Damasco, þar til ad Kong Achas kom fra Damasco.

12. Enn sem Kongurenn kom fra Damasco, og saa Alltared, þa færde hann Foorner þar yfer.

13. Og upptendrade þar a sijnar Brennefoorner, og Matoffur, og hellte þar yfer sijnu Drickiaroffre, og liet stockva Packar-Offursins Bloode af þvi sem hann offrade a Alltared.

14. Enn Koparalltared, þad sem stood fyrer DROTTne, took hann a burt, so þad skyllde ecke standa a millum Alltaresins og DROTTins Hwss, helldur sette þad vid Horned a Alltarenu til Nordurs.

15. Og Kong Achas baud Uria Kiennemanne, og sagde, Þu skallt uppkveikia Brenneoffur a þvi stoora Alltare um Morgna, og

Matoffur um Kvolldenn, og Kongsins Brenneoffur, og hans Matoffur, og alls Folksins Brenneoffur, j Landenu, med þeirra Matoffre og Drickiar-Offre, og þu skallt stöckva ollu Brenneoffursins Bloode, og allra annara Foorna Bloode þar uppa, Enn eg vil hugsa hvad eg vil giora af þvi Koparalltare.

16. Uria Kiennemadur giorde allt þad sem Kong Achas baud honum.

17. Og Kong Achas braut sijdurnar af Stoolunum, og took Katlana þar ofann af, og hann took Hafid af þeim Kopar Uxum, sem þar voru under, og sette nidur a Steingoolfed.

18. So og þær Sabbaths (a) Pekiurnar, sem þeir hofdu biggt j Hwsenu, og hann snere Kongsins Hwss-gongum, til DROTtins Hwss, Kongenum af Assyria til Vilia.

(a) (Pekiur) Under hvorium þeir sætu edur stoodu a Sabbaths Dogum, so sem Furstar og Stoor Herrar sitia under Tiolldum edur Pilium.

19. Enn hvad meira er ad seigia um Achas, hvad hann giorde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

20. Og Achas sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur j hia sijnum Fedrum, j Borg Davids. Enn Ezechias hans Son vard Kongur j hans Stad.

## XVII. Capitule.

Þær Tiju Ættkvijsler Israelis eru herleiddar i þa Assyrisku Utlegd, þa Hosea rijkte i Israel.

A þvi Tolfta aare Achas Juda Kongs vard Hosea, Son Ela, Kongur yfer Israel, j Samaria, j Niju aar.

2. Og hann giorde þad sem DROTTne illa lijkade, enn þo ecke so sem Israels Kongar, þeir sem fyrer hann voru.

3. Enn Salmanasser, Kongur af Assyria foor upp j moot honum, og Hosea vard honum undergiefenn, so hañ gaf honum Skatt.

4. Enn sem Assyria Kongur fieck ad vita, ad Hosea giorde Saattmaala, og hann hefde sendt Bod til SO, Kongsins af Egyptalande, og færde ecke Kongenum af Assyria Skeinkingar aarlega, þa setteſt Kongur af Assyria um hann, og lagde hann i Fangelse,

5. Sijdann foor Assyria Kongur um allt Land, og til Samariam, og sat um hana j Þriu Aar.

6. Enn a þvi Nijunda aare Hosea vann Kongurenn af Assyria Samariam, og flutte Israel j burt j Assyriam *, og sette þa j Halah og Habor hia þvi Vatne Gosan, og j Borger Medorum.

* [Endar Israels Kongs Rijkis sem nu hafde stadid 299 aar, þetta besur skied a Siohundradasta Aare fyrer Christi Fæding, epter Heimsins Skopun 3260 aar.]

7. Þviad a þeim Tijma sem Israels Born syndgudust moot DROTTne þeirra Gude, hvor ad ært hafde þa af Egyptalande, af Kong Pharaonis Hende, og þeir vottudust annarlega Gude,

8. Og geingu epter Heidingianna Sidum, hvoria DROTTinn hafde vtreked fyrer Israels Bornum, og so sem Israels Kongar giordu:

9. Og Israels Born segrudu sijnar Saker a moote DROTTne sijnum Gude, þær þo sem ecke voru goodar, sem voru þessar, ad þeir biggdu sier Hæder j ollum Borgum, bæde a Kostolum, og j sterkum Stodum:

10. Og þeir uppreistu Stoolpa og Lunda a ollum hoaum Hædum, og under ollum Bloomgudum Triaam:

11. Og þeir brenndu þar Reykelse a ollum Hædum, eins og Heidingiar, hvoria Drottinn hafde vtreked fyrer þeim:

12. Og giordu Illa Hlute med hvorium þeir styggdu DROTTinn, og þionudu Skwrgodum, um hvad ad DROTTinn hafde sagt til þeirra, Eige skulud þier giora þvilijkt:

13. Og þa DROTTinn vitnade j Israel og j Juda, fyrer alla Spaamenn og Sioaendur, og liet tilseigia þeim, Snwed fra ydrum Vondum Vegum, og hallded Mijn Bodord og Riettinde, epter þvi Logmaale sem eg baud ydrum Fedrum, og so sem eg sende til ydar, fyrer Spaamennena mijna Þienara:

14. Þa hlyddu þeir ecke, helldur Hardsvijr-

ſvijruduſt, eins og þeirra Forfedur, ſem ecke
trwdu a DROTTinn þeirra GUD:

15. Hier med fyrerlitu þeir hans Bodord,
og hans Saattmaala, ſem hann giorde vid
þeirra Forfedur, og hans Vitnisburd, ſem
hann giorde a medal þeirra. Og geingu j
ſijnum Hiegoma, og voru faavitrer lijka ſem
Heidingiar, þeir ſem ad binggu j kringum þa,
um hvoria ad DROTTinn hafde boded
þeim, ad þeir ſkylldu ecke giora ſem þeir:

16. Enn þeir yfergaafu øll Bodord
DROTTins þeirra Guds, og giordu ſier
Tvo ſteypta Kaalfa, og Lunda, og tilbaadu
allann Himenſins Her, og þionudu Baal:

17. Og lietu ſijna Syne og Dætur gan-
ga j giegnum Elldenn, og fooru med Spaa-
farer og Fiolkinge, og gaafu ſig ut til ad
giora allt þad ſem DROTTne jlla lijkade,
honum til ſtyggdar:

18. Þa vard DROTTinn miøg reidur
vid Iſrael, og kaſtade þeim fra ſinne Aſionu,
So þar var eingenn epter, utann alleina Kin-
þaattur Juda.

19. (Þar ad auk hiellt og Juda ecke hell-
dur Drottins þeirra Guds Bodord, og gieck
epter Iſraels Sidum, þeim ſem þeir giordu).

20. Og þvi burt kaſtade DROTTinn
øllu Iſraels Sæde, og þreyngde þeim, og
gaf þa j Ræningia Hendur, þar til hann
kaſtade þeim fra ſijnu Andlite.

21. Þvi Iſrael var ſlitenn fra Davids
Huſe, og þeir ſettu Jeroboam, ſon Nebat,
til Kongs, Hann ſnere Iſrael aptur a bak
fra DROTTne, og kom þeim miøg þungle-
ga til ad ſyndgaſt.

22. So geingu Iſraels Børn j øllum Je-
roboams Syndum, ſem hann hafde upp-
byriad, og ei lietu þeir þar af.

23. Fyr enn DROTTinn kaſtade Iſ-
rael fra ſijnu Andlite, ſem hann hafde ſagt
fyrer alla ſijna Þienara, Spaamennena.
So vard Iſraels Lydur burt fluttur j Aſſy-
riam, ur ſijnu Lande, allt til þeſſa Dags.

24. Og Kongurenn af Aſſyria liet koma
af Babel, af Chuta, af Ava, af Hemath, og
af Sepharvaim, og liet þa bua j Borgum
Samaria, i ſtadenn Iſraels Barna. Og
þeir eignuduſt Samariam, og biuggu j hen-
nar Stødum.

25. Enn ſem þeir tooku til þar ad bua,
og oottuduſt ecke DROTTinn, þa ſende
DROTTinn Leon a medal þeirra, þau
draapu þa.

26. Og þeir ſletu ſeigia Kongenum af
Aſſyria, Þeir Heidingiar ſem þu hingad fær-
der, til ad bua j Samaria Borgum, þeir vita
ecke af Guds Vijſu j Landenu, þvi hefur hann
ſendt Leon a medal þeirra, og ſiaa, þau drepa
þa, fyrer þvi, ad þeir vita ecke Vijſu Guds j
Landenu.

27. Þa baud Kongurenn af Aſſyria, og
ſagde, Sended eirn af þeim Kiennemønnum
þangad, ſem þadan voru burtufluttir, og fare
hann og bwe þar, og kienne hann þeim þa
Guds vijſu j Landenu.

28. Þa kom eirn af Preſtunum þangad,
hvør ed burt var fluttur af Samaria, og ſet-
teſt nidur j BethEl, og hann kiennde þeim
hvornenn ad þeir ſkylldu oottaſt DROttinn.

29. Enn ſierhvør Þiod giorde ſinn Gud,
og ſettu þa j þau Huſenn a Hædunum, ſem
þeir Samaritar giordu, ſierhvort Folk j ſij-
num ſtodum, þar þeir biuggu.

30. Þeir af Babylon giordu Suchoth
Benoth, þeir af Chut giordu Nergel, þeir
af Hemath giordu Aſima.

31. Þeir af Ava giordu Nibehas og
Tharthach, þeir af Sepharvaim brenndu
ſijna ſyne fyrer Adramelech og Anamelech
Skwrgodum þeirra Sepharvaim.

32. Og ſokum þeſs þeir hræddust og eir-
nenn DROttinn, þa ſettu þeir ſier Preſta a
Hædernar, af þeim minnſtu haattar a medal
ſijn, og ſettu þa j Huſenn a Hædonum.

33. Med þeſſum hætte ottuduſt þeir
DROTTinn, og þionudu og ſo Afgudum,
epter Sidvenin hvørs Folks ſem þeir voru
komner fraa.

34. Og allt til þeſſa Dags, þa breyta
 þeir

þeir epter gomlum sid, So ad þeir hvorke oottast DROTTinn, og ei giora þeir sijna Vijsu og Riettinde epter Logmaalenu og Bodordonum, hvort DROTTinn baud Jacobs Bornum, hvorium hann gaf Israels Nafn,

35. Og giorde eirn Soattmaala vid þa, og baud þeim og sagde, Ottest ecke adra Gude, og tilbidied þa ecke, og þioned þeim ecke, og færed þeim ecke Foorner.

36. Helldur DROTTne, sem færde ydur af Egyptalande, med mikelle Magt og utriettum Armlegg, oottest hann, akalled hann, og færed honum Foorner.

37. Og halldeð þa Sidu, þau Riettinde, Logmaal og Bodord sem hann liet uppskrifa ydur, ad þier alltijd giored þar epter, og oottest ecke adra Gude.

38. Gleymed ecke þeim Soattmaala sem hann giorde vid ydur, ad þier oottest ecke adra Gude.

39. Helldur oottest DROTTinn ydarn Gud, hann mun frelsa ydur fra ollum ydar Ovinum.

40. Enn þeir hlyddu þvi ecke, helldur giordu þeir epter sijnum gomlum sidvana.

41. So oottudust þesser Heidingiar DROTTinn, og þionudu lijka sijnum Afgudum, So giordu og þeirra Born, og þeirra Barnaborn, lijka sem þeirra Fedur giordu, allt til þessa Dags.

## XVIII. Capitule.

Ezechias Konungur j Juda sæter Harmkvælum og Yfergaange af Senacherib, Konunge Assyriskra.

Aþridia Aare Hosea, sonar Ela, Israels Kongs, vard Ezechias Kongur, son Achas Juda Kongs.

2. Og hann var Fimm og Tuttugu Aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Niju og Tuttugu Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Abia, Dotter Zacharie.

3. Og giorde hvad DROTTne vel þocknadest, so sem hans Fader David.

4. Hann nidursloo Hædernar, og sundur braut þau Skwrgod, og upphioo Lundana, og sundursloo þann Kopar-Orm sem Moses hafde giora laated, Þviad Israels Born hofdu brennt fyrer honum Reykelse, allt til þessa Dags, Og Menn kolludu hann (a) Nehusthan.

(a) (Nehusthan) Eirn hugdiarfur Kongur er þad sem sundurbrytur þann Eyrorm sem Gud sialfur hafde j þann tijd bijfalad og uppreist, vegna þess, ad hann var komenn j Afgudadyrdkunar Vanbrwk, og dyrfist ad laata predika so Foraktanlega (um hann) ad þad sie Nehusthan, þad er eitt Eyroms korn, einn litill Maalmur, eitt Kopar korn, hvad fyrer Gud maa þad vera?

5. Hann sette Tru til DROTTins Israels Guds, so ad epter hann var ecke hans Lijke, a medal allra Konga Juda, og ecke helldur hafde vered fyrer hann.

6. Hann hiellt sier ad DRottne, og veik ecke aptur a bak fra honum, og hiellt hans Bodord, sem DROTTinn hafde boded Mose.

7. Og DROTTinn var med honum, og hann hondlade forsiaalega, hvar hann utfoor. So og fiell hann fra Kongenum af Assyria, og var honum ecke undergiefenn.

8. Hann sloo og Philisteos allt til Gasa, og þeirra Landamerke, fra Slotunum, og allt til þeirra fostu stadanna.

9. A þvi Fiorda Aare Ezechie, Juda Kongs, þad var a þvi Siounda Aare Hosea, sonar Ela, Israels Kongs, Þa foor Salmanasser, Kongur af Assyria, upp j moote Samaria, og settest um hana,

10. Og vann hana, ad þremur aarum lidnum, a þvi Siotta Aare Ezechie, þad er a þvi Nijunda Aare Hosee Israels Kongs, þa vard Samaria unnenn.

11. Og Assyria Kongur flutte Israel burt, til Assyriam, og sette þa j Halah og Habor, hioa Vatnenu Gosan, og j Borger þeirra Medorum.

12. Fyrer þvi, ad þeir hofdu ecke hlydt DROTTins þeirra Guds Roddu, og hofdu yfer-

yfertroded hans Skattmaala, og allt þad sem Moses Guds Þienare hafde boded, þar af høfdu þeir øngvo hlydt nie giort.

13. A þvi Fiortanda Aare Ezechie Kongs foor upp Senacherib, Kongur af Assyria, moot øllum sterkum Borgum j Juda, og vann þær.

14. Þa sende Ezechias, Kongur Juda, til Kongsins af Assyria, til Lachis, og liet seigia hønum, Eg hefe misgiort, Vijk fra mier, Eg vil bera hvad þu leggur uppa mig. Þa lagde Kongurenn af Assyria uppa Ezechiam Juda Kong þriu Hundrud Centener Silfurs, og þriatijger Centener Gulls.

15. Og Ezechias gaf allt þad Silfur sem fannst j Huse DROTTins, og þad Fie sem var j Kongsins Fiehirdslum.

16. A sama Tijma braut Ezechias Hurdena a Huse DROTTins, og þær Plotur sem hann hafde sialfur laated yfer klæda med, og gaf þad Kongenum af Assyria.

17. Enn Kongurenn af Assyria sende Tharthan, og þann ypparsta Herbergis Svein, og Rabsakes (b) fra Lachis, til Kongs Ezechiam, med mikellre Magt, til Jerusalem, Og þeir fooru upp þangad. Enn sem þeir komu tooku þeir sier stødu hiaa Vatnsgrøfonum, nær þvi efsta Fiska dyke, sem liggur hiaa Veigenum, upp ad Klædaþvottarans Akre.

(b) (Rabsake) Þydest Ædste Skeinkiare aa Norrænu.

18. Og kølludu a Kongenn. Þa kom ut til þeirra Eliakim, son Hilkia, Hofmeistarinn, og Sebna, Skrifarenn, og Joah, son Asaphs, Cantzelerenn.

19. Þa sagde sa Ædste Skeinkiare til þeirra, Kiære, Seiged Ezechia Konge, So seiger Saa mikle Kongur, Kongur af Assyria, Hvad er þad fyrer Traust er þu treyster a?

20. Meinar þu, ad þar sie enn nu Raad edur Magt ad strijda? Uppa hvad treyster þu, ad þu ert fallenn fra mier?

21. Siaa, Setur þu þijna Von j brotnum Reyrsprota af Egyptalande? Vid hvorn ef nockur stydur sig, þa geingur hann j hans Hond, og stijngur hana j gegnum, Eins er Pharao Egypta Kongur øllum þeim sem hønum treysta.

22. Enn villed þier og seigia til mijn, Vier høfum traust j DRottne vorum Gude, Er hann ecke sa, hvørs Hæder og Alltare Ezechias hefur nidurbroted, og sagt til Juda og Jerusalem, Fyrer þessu Alltare, sem er j Jerusalem, skulud þier tilbidia?

23. Lofa þu mijnum Herra Kongenum af Assyria, Eg vil faa þier Tvo Þusund Hesta, ef þu kannt ad giefa Riddara til þeirra.

24. Hvørnenn maattu þa standa moote einum minnsta Herra, sem mijnum Herra er undergiefenn? Og þu treyster uppa þa Egyptsku, vegna þeirra Vagna, og Riddara lids.

25. Eda meinar þu, ad eg sie komenn hingad aan DROTTins ad fordiarfa þessa stade? DROTTinn hefur boded mier, Far upp til þess Lands, og eydelegg þad.

26. Þa sagde Eliakim, son Hilkia, og Sebna, og Joah, til þess ypparsta Skeinkiara, Tala þu vid þijna Þienara a Syrlendsku, Þviad vier skilium þad, enn tala ecke vid oss Judisku Maal fyrer Eyrum Folksins sem er upp a Múrnum.

27. Enn sa ypparste Skeinkiare sagde til þeirra, Hefur minn Herra nockud sendt mig til þijns Herra, eda til þijn, ad eg skyllde tala soddann Ord? Helldur til þeirra Manna sem sitia uppa Múrnum, ad þeir ete med ydur þeirra eigenn Mykiu, og drecke þeirra eiged Þvag.

28. So stood sa ypparste Skeinkiare, og hroopade med haarre Roddu a Judisku, og sagde, Heyred þess Megtuga Kongs Ord, Kongsins af Assyria.

29. So seiger Kongurenn, Laated ecke Kong Ezechia svijkia ydur, Þviad ecke hefur hann Maatt til ad frelsa ydur fraa minne Hende.

30. Og laated ecke helldur Ezechiam giefa

ydur Ostraust a DROTTne, þar hann seiger, DROTTinn mun frelsa oss, og þesse Borg mun ecke giefast j Assyria Kongs Hendur.

31. Hlyded ecke Ezechia. Þvi so seiger Kongurenn af Assyria, Medtaked mijna Náad, og komed vt til mijn, so skal hvor Madur neyta af sijnu Vijntrie og Fijkiutrie, og drecka af sijnum Brunne.

32. Þar til eg kiem ad færa ydur burt j eitt Land, hvort ad lijka er sem ydart Land, j hvoriu ad er Korn, Vijn, Braud, Vijngardar, Oliu-Trie, Vidsmior og Huncang, So skulud þier hallda ydru Lijfe, og ecke deya. Hlyded ecke Ezechia, Þvi hann svijkur ydur, j þvi, ad hann seiger, DROTTinn mun frelsa oss.

33. Hafa nockud Heidingianna Guder frelsad hvor sitt Land, af Assyria Kongs Hende?

34. Hvar eru Guder þeirra j Hemath, og Arphad? Hvar eru Guder þeirra j Sepharvaim, Hena og Jwa? Hafa þeir og frelsad Samariam af minne Hende?

35. Hvar er sa GUD, a medal allra Landa Guda, sem frelsad hefur þeirra Land af minne Hende? So ad DRottinn skyllde frelsa Jerusalem af minne Hende?

36. Og Folked þagde, og svarade honum øngvo, Þviad Kongurenn hafde boded og sagt, Svared honum øngvo.

37. Þa kom Eliakim, Son Hilkia, Hofmeistarenn, og Sebna Skrifare, og Joah, Son Assaphs, Cantzlere, til Ezechiam, med sundur rifnum Klædum, og sogdu honum Ord þess ypparsta Skeinkiara.

## XIX. Capitule.

*Ezechias Konungur bidur til Drottens, og verdur þarfyrer frelsadur med Dáasamlegum Hætte.*

Enn sem Ezechias Kongur heyrde þetta þa reyf hann sijn Klæde, og lagde a sig eirn Seck, og gieck j Hws DROTTins.

2. Og hann sende Eliakim Hofmeistara, og Sebna Ritara, med þeim ellstu Kiennemonnum, klædda Seckium, til Spámannsins Esaiam, Sonar Amos,

3. Og þeir sogdu til hans, So seiger Ezechias, Þetta er Dagur Neydarennar, Illyrdanna og Lastsins. Bornenn eru komenn ad Fædingu, enn þar er eingenn Máattur til ad fæda.

4. Ef ad skie mætte, DROTTinn þinn GUD villde heyra øll Ord þess ypparsta Skeinkiara, hvorn hans Herra, Kongurenn af Assyria, sende hingad, ad tala hꝍaduglega um þann Lifanda GUD, og hallmæla med þeim Ordum sem DROTTinn þinn GUD hefur heyrt, So upphef þijna Bæn, fyrer þa sem epter eru ordner, sem enn eru til.

5. Enn sem Ezechia Kongs Þienarar komu til Esaiam,

6. Þa sagde Esaias til þeirra, Seiged ydrum Herra so, So seiger DROTTinn, Eige skalltu hrædast þau Ord sem þu heyrder, med hvorium Kongsins Sveinar af Assyria løstudu Mig.

7. Sioa, Eg vil giefa honum eirn Anda, ad hann skal heyra eitt Rikte, og fara heim aptur j sitt Land, og Eg vil fella hann med Sverde j sijnu Lande.

8. Enn þa sa ypparste Skeinkiare kom aptur, fann hann, ad Kongurenn af Assyria bardest a mot Libna, Þvi hann heyrde, ad hann var farenn af Lachis.

9. Og þa hann heyrde um Thirhaka Blálands Kong, Sioa, Hann er vtfarenn ad beriast vid þig, þa snere hann aptur. Og hann sende Bod til Ezechiam, og liet seigia honum.

10. Seiged so Ezechia Juda Konge, Lꝍat þu ecke þinn GUD svijkia þig, a hvorn þu treyster, og seiger, Jerusalem skal ecke giefast j Kongsins Hond af Assyria.

11. Sioa, þu hefur heyrt hvad Assyria Kongar hafa giort øllum Londum, og foreydt þeim, Skyllder þu þa eirn frelsast?

12. Hafa nockud Heidingianna Guder frelsad

frelsad þa sem mijner Forfedur fordiorfudu, Gosan, Haran, Rezeph, og Børn Eden, sem voru j Thelazar?

13. Hvar er Kongurenn af Hemath, Kongurenn af Arphad, og Kongurenn af Stadnum Sepharvaim, Hena og Iwa?

14. Enn sem Ezechias hafde medteked Briefenn af Sendebodunum, og lesed þau, þa gieck hann upp til DROTTins Hwss, og wtbreidde þau fyrer DROTTne.

15. Og hann bad fyrer DROTTne, og sagde, DROttinn GUd Israels, hvor ad situr yfer Cherubim, þu ert GUd alleina a medal allra Kongarijkia a Jordunne, þu giorder Himen og Jord!

16. DROTTinn, Hneig þu þijn Eyru, og heyr, Laat upp þijn Augu, og sioa, og heyr Senacheribs Ord sem hann sende hingad, ad hæda þann Lifanda GUd.

17. Enn satt er þad DROttinn! Assyria Kongar hafa j eyde lagt Heidingiana, og þeirra Lond.

18. Hafa og kastad þeirra Gudum j Elld, þviad þad voru ecke Guder, helldur Handaverk Manna, Stockar og Steinar, og þvi hafa þeir fyrerkomed þeim.

19. Enn nu DROTTinn Vor GUd, hiaalpa þu oss fra hans Hende, so ad oll Kongarijke a Jordunne meige þeckia, ad þu DROttinn ert GUd alleina!

20. Þa sende Esaias, Son Amoz, til Ezechiam, og liet honum seigia, So seiger DROTTinn Israels GUd, Eg hefe heyrt hvors þu hefur beded af mier, um Senacherib Assyria Kong.

21. Þetta er þad sem DROTTinn hefur talad jmoote honum, Jungfrwenn Zions Dotter forsmaaer þig, og hæder ad þier, Dotter Jerusalem hrister sitt Hofud epter þier.

22. Hvorn hefur þu spottad og lastad? Yfer hvorn hefur þu upphafed þijna Rodd? Þu hoofst þijn Augu j giegn þeim Heilaga j Israel.

23. Þu hædder DROTTinn med þijnum Sendemonnum, og sagder, Eg em uppfarenn a Hæder Fiallanna, fyrer margfiolda minna Vagna, uppa Sijdu Libanon, Eg hefe hoggved hans haafu Cedrus Trie og wtvalenn Furu Trie, og em komenn til Carmels Skoogs ytstu Herbergia.

24. Eg hefe uppgrafed og wtdrucked þau annarlegu Votn, og eg hefe upp þurkad oll Stoduvotn med Soolum minna Foota.

25. Enn hefur þu ecke heyrt, ad fyrer laungu hefe eg þvilijkt giort, og af Upphafenu hefe eg þetta reidubwed? Enn nu hefe eg laated koma, ad þeir fostu Stader skylldu falla, og verda ad eirnre Eyde-Griotthrwgu.

26. Og þeir sem bwa þar skylldu verda Maattlauser og hrædder, og skammast sijn, og verda sem Gras a Akre, og sem grænar Jurter til Heys a Þekiunum, hvort ad visnar aadur enn þad er fullvaxed.

27. Eg veit þitt Heimele, þinn Utgang og Inngang, og ad þu æder jmoote mier.

28. Enn first ad þu æder so jmoote mier, og þinn Ofmetnadur er komenn upp fyrer mijn Eyru, þa vil Eg leggia eirn Hring j þijnar Naser, og eitt Beisl j þinn Munn, og Eg vil leida þig þann sama Veg aptur, sem þu komst hingad.

29. Og þetta skal vera þier til eins merkis, Et þu a þessu aare, þad sem nidurtroded er. Enn a odru aare, þad sem sioalfkrafa vex. Enn a Þridia aare, saaed og Haustirked, Planted og Vijngarda, og neyted þeirra Avarta.

30. Enn Dotter Juda, sem frelst er og epter ordenn, mun hier epter saa Rætur under sig, og bera Avoxt yfer sier.

31. Þviad þeir sem epter eru ordner skulu wtganga af Jerusalem, þeir af Zions Fialle sem eru frelsader. Vandlæte DROTTins Zebaoth skal giora þetta.

32. Og þvi seiger DROTTINN so um Assyria Kong, Eige skal hann koma j þessa Borg, og ongre Or skiota þar jnn, og eingenn Skiolldur skal koma þar fyrer, og ongvann

gvann Strijdsgard skal hann upphlada þar um kring.

33. Helldur skal hann fara þann Veg aptur sem hann kom, og ei skal hann koma j þennann Stad, DROTTinn seiger þad.

34. Og Eg vil hlijfa þessare Borg, ad Eg hiaalpe henne fyrer mijna Skulld, og sokum mijns Pienara Davids.

35. Enn a þeirre somu Noott foor Eingell DROTTins vt, og sloo jhel Hundrad Þusund, og Fimm og aattatijge Þusund Manns, j Herbwdum þeirra Assyrijs. Enn sem þeir stodu aarla upp um Morgunenn, Sioa, þa laa þar allt fullt med daudra Manna Lijkame.

36. So took Senacherib, Assyria Kongur, sig upp, foor j burt, og snere aptur, og var j Ninive.

37. Enn sem hann tilbad j Hwse Nisroch sijns Guds þa slou hans Syner AdraMelech og SarEzer hann jhel med Sverde. Og þeir flwdu j Land Ararat. Enn hans Son Asserhaddon vard Kongur j hans Stad.

## XX. Capitule.

Hvørsu (I) ad Ezechias Kon: vard Sinkur; (II) Heilbrigdur; (III) Metnast, og (IV) andast.

I. A þeim Tijma vard Ezechias daudsiukur. Og Esaias, Spaamadur, Son Amos kom til hans, og sagde honum, So seiger DROTTinn, Gior Skipan þijns Hwss, þvi þu skallt deya, og ecke lifa.

2. Enn hann snere sinne Asionu til Veggiar, bad til DROTTins, og sagde,

3. O DROTTinn! Minnstu þo, ad eg hefe geinged trulega fyrer þier, og med riettskickudu Hiarta, og eg hefe giort þad sem þier lijkar. Og Ezechias griet miog.

II. 4. Enn aadur enn Esaias var komenn j midiann Stadenn, þa kom DROTTins Ord til hans, og sagde.

5. Snu þu aptur, og seig til Ezechia, Hofdingia mijns Folks, So seiger DROTTinn, Gud þijns Fodurs Davids, Eg hefe heyrt þijna Bæn, og sied þijn Taar, Sioa, Eg vil giora þig Heilbrigdann, a Pridia Deige skalltu uppganga til Hwss DROTTins.

6. Og Eg vil leingia Lijfdaga þijna um Fimmtan aar, og frelsa þig og þessa Borg fra þeim Assyria Konge, og Eg vil hlijfa þessare Borg, Saker mijn, og Saker mijns Pienara Davids.

7. Og Esaias sagde, Sæked hingad Klasa af Fijkium. Og sem þeir komu med hann þa løgdu þeir þad yfer Meined, og hann vard heilbrigdur.

8. Ezechias sagde til Esaiam, Hvørt er þad Teikn ad DROTTinn vill giora mig heilbrigdann, og ad eg skal ganga til Drottins Hwss a hinum Pridia Deige?

9. Esaias svarade, Þu munt hafa þetta Teikn af DROTTni, ad DROttinn skal giora þad sem hann hefur sagt. Skal Skuggenn ganga framm um Tiju Lijnur, eda ganga aptur um Tiju Lijnur?

10. Ezechias sagde, Þad er audvellt ad laata Skuggann ganga um Tiju Lijnur nidur, þad vil eg ecke, helldur ad hann gange Tiju Lijnur aptur a bak.

11. Þa kallade Esaias Spaamadur til DROTTins. Og Skuggenn gieck Tiju Lijnur til baka a Achabs Sigurverke, sem hann var aadur frammgeingenn.

III. 12. A þeim Tijma sende BrodachBaledan, sonur Baledan, Kongurenn af Babylon, Brief og Skeinkingar til Ezechiam. Þviad hann hafde heyrt ad Ezechias hafde vered siukur.

13. Og Ezechias vard gladur med þeim, og synde allt sitt Gersema Hus, Silfur, Gull, dyrlegar Jurter, og þad besta Oleum, og Tya Hused, og allt þad hann hafde j sijnum Fiehyrdslum. Þar var eckert j hans Huse, og eckert j hans ollu Vellde, sem Ezechias synde þeim ecke.

14. Þa kom Esaias Spaamadur til Ezechia Kongs, og sagde til hans, Hvad hafa þesser Menn sagt? Og hvadann eru þeir kom-

komner til þijn? Ezechias sagde, Þeir eru komner af fiarlægu Lande til mijn, fraa Babylon.

15. Hann sagde, Hvad hafa þeir sied j þijnu Huse? Ezechias svarade, Þeir hafa sied allt þad sem j mijnu Huse er, Og þar er ecke neitt j mijnum Fioarsioodum sem eg synda þeim eige.

16. Þa sagde Esaias til Ezechiam, Heyr þu Ord DROttins!

17. Sioa, Sa Tijme kiemur, ad allt þetta skal burtflytiast til Babylon af þijnu Huse, og þad sem þijner Forfedur hafa safnad, allt til þessa Dags, og þar skal eckert epterlaated verda, seiger DROTTinn.

18. Þar med þau Born sem koma af þier, þau þu munt eiga, þau munu takast, ad vera Herbergiasveinar j Kongsins Hollu af Babylon.

19. Þa sagde Ezechias til Esaiam, Þad er Gott sem DROTTinn hefur talad. Og hann sagde enn framar, Þar mun þo verda Fridur og Tryggd j mijnu Daga.

IV. 20. Hvad meira er ad seigia af Ezechia, og um alla hans Magt, og allt þad hann giorde, og um þad Fiskdijke, og Brunnstocka, hvar med hann veitte Vatne inn j Borgena, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

21. Og Ezechias sofnade burt med sijnum Fedrum, Enn Manasses, hans son, vard Kongur j hans stad.

## XXI. Capitule.

Um þa Konunga j Juda (I) Manasses, og (II) Amon; Og þeirra Rijkes Stiorn.

I. Manasses var Tolf Aara gamall þa hann took Kongdom, og rijkte Fimm og Fimmtijge Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Hephziba.

2. Og hann giorde þad sem DROTTne illa lijkade, epter Heidingianna Svijvirdingum, hvoria ad DROTTinn utrak fyrer Israels Bornum.

3. Og hann frooasnere sier og uppbiggde þær Hæder sem Ezechias hans Fader hafde idurbroted, og uppreiste Baals Alltare, og giorde Blootskooga, so sem giort hafde Israels Kongur Achab, og tilbad allshoattadann Himens Her, og þioonade þeim.

4. Og hann reiste eitt Alltare j Hoase DROTTins, um hvort ad DROTTinn sagde, Eg vil setia mitt Nafn j Jerusalem.

5. Og hann biggde ollum Himensins Her Alltare j boadum Gordonum upp vid Hoas DROTTins.

6. Og hann liet sinn Son ganga j giegnum Elldinn, Hann gaf giætur ad Fugla Moale og Teiknum, og hann hiellt Spoasagnamenn og Teiknaþydendur, og giorde soddan margt sem DROttne illa lijkade, hvar med hann styggde hann.

7. Hann sette eitt Blootskoogar Skurgod, sem hann hafde giort, j þad Hus, um hvort ad DRottinn hafde sagt til Davids, og til hans Sonar Salomons, J Þetta Hus, og j Jerusalem, sem Eg utvalde af ollum Israelis Ættum, vil Eg setia mitt Nafn æfinlega.

8. Og eige vil Eg loata Israels Fætur meir hrærast af Landenu þvi sem Eg gaf þeirra Forfedrum. Þo med þvi moote, ef þeir hallda og giora epter ollu þvi sem Eg hefe boded þeim, og epter ollu þvi Logmoale sem Moses Minn Þienare baud þeim.

9. Enn þeir hlyddu ecke, helldur villte Manasses þa, so þeir giordu meire Illskur enn þeir Heidingiarner, hvoria DROttinn hafde eydelagt fyrer Israelis Bornum.

10. Þa talade DROttinn fyrer sijna Þienara Spoamennena, Og sagde.

11. Sokum þess, ad Manasses Kongur af Juda hefur giort soddan Svijvirdingar, sem eru verre enn allar þær Svijvirdingar sem Amoritarner giordu, sem ad voru fyrer hann, og hefur komed Juda til ad syndgast med sijnum Skurgodum,

12. Þar fyrer seiger DROttinn Israelis Gud so, Sioa, Eg vil leida Olucku yfer Jerusalem og Juda, og hvor þad heyrer, þad mun gella j boadum hans Eyrum.

 13. Og

13. Og Eg vil draga Mælevad Samariæ yfer Jerusalem, og Vigt Achabs Huss, og Eg vil afþurka Jerusalem, lijka sem Madur þurkar Föt, Madur þurkar, og hvelfer þeim,

14. Og Eg vil j burt kasta þeim sem epter eru af minne Erfd, og giefa þa j sinna Ovina Hendur, so þeir skulu verda ollum sijnum Ovinum ad Roane og Sundurslijtningu.

15. Sokum þess, ad þeir giordu þad sem Mier jlla lijkade, og hafa styggt Mig, fraa þeim Deige sem þeirra Forfedur fooru af Egyptalande, og allt til þessa Dags.

16. Og Manasses hellte ut miøg miklu Saklausu Bloode, þar til Jerusalem vard hier og þar full, Ad auk þeirra Synda, med hvorium hann kom Juda til ad syndgast, so þeir giordu þad sem DROTTne illa lijkade.

17. Hvad meira er ad seigia um Manassen, og allt þad sem hann hefur giort, og hans Synder sem hann framde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

18. Og Manasses sofnade j burt med sijnum Fedrum, og var jardadur j Jurtragarde sijns Huss, sem var j Gardenum Usa, Og Amon, hans son, vard Kongur j hans stad.

II. 19. Amon hafde Tvo Vetur um Tvijtugt þa hann vard Kongur, og hann rijkte Tvo Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Mesulemeth, Dotter Haruz, af Jatba.

20. Og hann giorde þad sem DROttne jlla þocknadest, eins sem Manasses, hans Fader, hafde giort.

21. Og hann foor allann Feril sem hans Fader hafde fared, og þionade þeim Afgudum sem hans Fader þionade, og bad til þeirra.

22. Og hann gleymde DROttne Gude sinna Forfedra, og gieck ecke a Vegum DROTTinns.

23. Og hans Pienarar giordu Samtøk j moote Amon, og sloou Kongenn j Hel j hans Huse.

24. Enn Landsfoolked drap þa alla sem þau Samtøk hofdu giort j moote Kongenum Amon. Og Folked j Landenu giorde Josiam, hans son, til Kongs j hans stad.

25. Hvad Amon meira giorde, Sioa, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

26. Og þeir jordudu hann j sinne Grof, j Gardenum Usa, Og Josias, hans son, vard Kongur j hans stad.

## XXII. Capitule.

Løgmaals Book DROttens finnst þa Josias Kongur rijker j Juda.

Josias var aatta Aara gamall þa hann took Kongdoom, og hann rijkte Ellefu og Tuttugu Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Jedida, Dotter Adaja, af Bazkath.

2. Og hann giorde þad sem DROttni vel þocknadist, og gieck j ollum Davids sijns Fødurs Vegum, og veik hvorke til hægre nie vinstre Handar.

3. Enn aa þvi aatianda Aare Josiæ Kongs þa sende Kongurenn Saphan, son Azalias, sonar Mesulam, sinn Skrifara, burt j DROttins Hus, og sagde,

4. Far upp til þess Ædsta Kiennemanns Hilkia, so ad Menn giefe þeim þad Fie, sem jnn er komed j Hus DROTTins, hvoriu Proskollds Vardhallds Mennerner hafa samansafnad af Folkenu,

5. Ad þeir sem tilskickader eru j Huse DROttins giefe Erfidis-Monnunum þad, Joa, giefe Erfidis-Monnonum þad, sem eru j Huse DROttins, ad þeir endurbæte þad sem brosted er a Hvsinu,

6. Sem er Timburmonnonum, og Uppbyggingar-Monnonum, og Murmeistorum, og þeim sem ad kaupa skulu Trie, og uthoggna Steina, til ad bæta Husid med.

7. Po skulu Menn ei taka Reikningskap af þeim, fyrer þa Peninga sem þeim giefast j þeirra Hendur, helldur skulu þeir hondla med þa uppa Tru.

8. Og soa Ædste Kiennemann Hilkia, sagde til Saphan Skrifara, Eg hefe funded Løgmaals-

maalsbokina j Huse DROttins. Og Hilkia fieck Saphan Bookina, ad hann skyllde lesa j henne.

9. Og Saphan Skrifare bar hana til Kongsins, og talade vid hann aptur, og sagde, Þijner Þienarar samansøfnudu þeim Peningum sein fundust j Husinu, og þeir sem eru tilsetter j Huse DROttins, gaafu þa Arfidis Monnunum.

10. Og Saphan Skrifare talade til Kongsins, og sagde, Hilkia Kiennemadur fieck mier eina Book. Og Saphan las hana fyrer Kongenum.

11. Enn sem Kongurenn heyrde Ord Løgmaalsbookarennar þa reif hann sijn Klæde.

12. Og Kongurenn baud Hilkia Kiennemanne, og Ahicham, syne Saphan, og Achbor, syne Michaja, og Saphan Skrifara, og Asaia, Kongsins Þienara, og sagde.

13. Fared og adspyried Drottinn fyrer mig, og fyrer Folked, og fyrer allann Juda, um Ord þessarar Bookar sem fundenn er. Þviad þar er ein Mikel DROTTins Reide upptendrud yfer oss, sokum þess, ad vorer Forfedur hafa ecke hlydt Ordum þessarar Bookar, so ad þeir giørdu allt þad sem skrifad er j henne.

14. Þa gieck Hilkia Kiennemadur, Aikam, Achbor, Saphan, og Asaia, til Hulda Spaakonu, sem var Husfru Sallum, sonar Thikua, sonar Harham, sem Klædinn geymde, og hun bioo j Jerusalem, j þeim odrum Parte, og þeir toludu vid hana.

15. Hun sagde til þeirra, So seiger DROTTinn Gud Israels, Seiged þeim Manne sem ydur sende til mijn,

16. So seiger DROttinn, Sia, Eg vil leida Olucku yfer þennann Stad, og hans Jnnbyggiara, Øll þau Løgmaalsins Ord sem Juda Kongur hefur laated lesa.

17. Fyrer þvi, ad þeir hafa yfergiefed mig, enn giefed Reykelse fyrer Annarlegum Gudum, ad þeir reittu mig til Reide med øllum þeirra Handaverkum, þar fyrer skal mijn Reide upptendrast jmoote þessum Stad, og ecke vtslockna.

18. Enn þier skulud so seigia Juda Konge, sem ad sende ydur hingad, ad ganga til Frietta vid DROttinn, So seiger DROTTinn Gud Israels.

19. Fyrer þvi, ad þitt Hiarta klocknade, vid þau Ord sem þu heyrder, og þu audmykter þig fyrer DROTTne, þa þu heyrder hvad Eg hafde talad á moot þessum Stad, og hans Jnnbiggiurum, ad þeir skylldu verda ein Eydelegging og Bølvan, og þu reyfst þijn Klæde sundur, og grietst fyrer mier, So hef Eg og heyrt þad, seiger DROTTinn.

20. Þvi vil Eg safna þier til þiuna Fedra, ad þu skallt safnast til þinnar Grafar med Fride, so ad þijn Augu skulu ecke sia alla þa Olucku sem Eg vil leida yfer þennann Stad. Og þeir søgdu þetta Kongenum aptur.

## XXIII. Capitule.

(I) Josias lætur giøra eina Ysred agiæta Reformation epter Løgmaals Bok Drottens; En (II) epter hann daudann verdur (III) Joachas Konungur; Og þarnærst (IV) Joachim.

I. Og Kongurenn sende vt, og aller Øldungar j Juda og Jerusalem søfnudu sier til hans.

2. Og Kongurenn gieck upp j Hws DROTTins, og aller Menn af Juda, og aller Jnnbiggiarar j Jerusalem med honum, Kiennemennerner og Spaamennerner, og allt Folked, bæde smaaer og storer. Og þar voru lesenn fyrer þeirra Eyrum øll Ord Saattmaals Bokarennar, sem fundenn var j Hwse DROTTins.

3. Og Kongurenn stood hia einum Stoolpa, og giørde eitt Saattmaal fyrer DROTTne, ad þeir skylldu ganga epter DROTTne, og hallda hans Bodord, hans Vitnisburde og Riett, af øllu Hiarta, og af allre Ønd, ad þeir uppreistu þessa Saattmaals Ord, sem skrifud stodu j þessare Bok, og allt Folked gieck under þennann Saattmaala.

4. Og Kongurenn baud Hilkia Edsta Kiennemanne, og þeim Prestonum þeirrar Annarar Skipanar, og Vardhalldsmønnonum hiꝏ Proskelldenum, ad þeir skylldu taka af DROTTins Mustere oll þau Verkfære sem ad giord voru til Baals, og til Lundanna, og til alls Himensins Hers, og hann brennde þau upp fyrer utann Jerusalem, j Dalnum Kidron, enn Askann af þeim var borenn til BethEl.

5. Og hann took j burt alla þa (a) Camarim, sem Juda Kongar hofdu skickad ad brenna Reykelse, a Hædum, j Borgum Juda, og kringum Jerusalem, og þa sem brenndu Reykelse fyrer Baal, og fyrer Soolu og Tungle, Planetum og ollum Himensins Her.

(a) (Camarim) Þad voru Sierleger Andleger Menn, so sem þeir Gudleguslu og stranglijfudustu Munkar nu vilia vera, þar fyrer hafa þeir og þad Nafn Camarim, þad hlioodar svo miked sem Elldheitur Storgudlealeike, og Reykelsid gildte so miked hiꝏ þeim, so sem Munka Saungur og Bæner hiꝏ oss j Kyrkiunum, hvad Reykelse þyder allstadar Bæner j Skriftenne, enn so sem Munkanna Bæner eru, so var hinna Reykelse, hvorutveggia Manna-Buidur ꝏn Guds Anda og Ords.

6. Og hann liet færa Lundenn af Drottins Hwse, utann fyrer Jerusalem, j Læk Kidron, og uppbrennde hann j Kidrons Læk, og giorde hann ad Dupte, og kastade Oskunne uppa Almwga Folksins Grafer.

7. Og hann braut ofann þau Hooru Hws sem stoodu upp hiꝏ Hwse DROTTins, j hvorium ad Konurnar vꝏfu Hws til Lundanna.

8. Og hann liet koma alla Kiennemenn af Juda Stodum, og saurgade þær Hæder, þar Prestarner brenndu Reykelse a, fra Geba og allt til BerSeba. Og hann nidurbraut þær Hæder, j Borgarhlidonum, sem voru j Portdyrum Josuæ Stadar Fovetans, sem voru til Vinstre Handar, þa geinged var j Stadarins Port.

9. Þo hofdu ecke enn þeir Hæda Prestar offrad yfer DROTTins Alltare j Jerusalem, enn þeir ꝏtu Osyrd Brauð a medal sinna Brædra.

10. Hann saurgade og Thopheth j Hinnoms Barna Dal, ad eingenn liete sinn Son eda sijna Dotter fara j giegnum Elldenn, fyrer Molech.

11. Hann took og þa Hesta j burt, sem Juda Kongar hofdu sett Solunne j Inngꝏnge DROTTins Hwss, hiꝏ Herberge Nethan Melech Herbergia Sveins, sem var j Parvarim, og hann uppbrennde Soolarennar Vagna med Ellde.

12. Og Kongurenn nidurbraut Ollturenn sem stoodu uppa Pakenu a Achabs Sal, sem Juda Kongar hofdu giort, og þau Alltare sem Manasses hafde giort, j þeim Tveimur DROTTins Hwss Gordum, og hann gieck þar fra, og kastade þeirra Dupte j Lækenn Kidron.

13. Kongurenn saurgade og þær Hæder sem voru utann fyrer Jerusalem, til hægre Handar, hiꝏ Fiallenu Mashith, sem Salomon Israels Kongur hafde biggt Asthoreth, Svijvirdingu þeirra j Sidon, og Thamos, Svijvirdingu Moab, og Milchom, Svijvirdingu Amons Barna.

14. Og hann sundur sloo Lijkneskenn, og eydelagde Lundana, og fyllte þeirra Stade med Manna Bein.

15. So og þad Alltare j BethEl, og þa Hæd sem Jeroboam, Son Nebat, giorde, sem kom Israel til ad syndga, þad sama Alltare braut hann nidur, og þa Hæd, og uppbrennde þær Hæder, og giorde þær ad dupte, hann brennde og Lundenn.

16. Og Josias snere sier, og sꝏ þær (daudra Manna) Grafer, sem voru ꝏ Fiollunum, og sende þangad, og liet taka Beinenn af Grofunum, og brenna þau yfer Alltarenu, og saurgade þad, epter DROTTins

Tins Orde, so sem Guds Madur hafde þad wthroopad eadur, sem þad wthroopade.

17. Og hann sagde, Hvad er þad fyrer (b) Legsteinn sem eg sie? Og Folked j Stadnum sagde til hans, Þetta er þess Guds Manns Grof, sem kom af Juda, og þetta wthroopade, þad sem þu hefur giort jmote þessu Alltare j BethEl,

(b) (Legsteinn) Hvad þad hefur vered fyrer Hrrberge, edur GersemaGeymslu Hus, Graffkrift, edur Grafar Teikn, þad finnur þu vel hia Jeremiam og Ezechielem.

18. Og hann sagde, Loated hann liggia, hrære eingenn hans Bein. Svo urdu hans Bein friiud, med Spaamannsins Beinum, sem kom af Samaria.

19. Hann took og j burtu oll Hws Hædanna, j Borgum Samarie, sem ad Israels Kongar hofdu giort til styggdar, og breitte vid þau j allann maata, so sem hann giørde j BethEl.

20. Og hann foornfærde alla þa Hædanna presta sem þar voru, a Aullturonum, og brennde so Manna Bein þar uppa, og kom til Jerusalem aptur.

21. Og Kongurenn baud Folkenu, og sagde, Hallded Paaska DROTTni ydrum Gude, so sem þad er skrifad j þessare Saattmaals Book.

22. Þvi þar voru ongver soddan Paaskar halldner sem þesser, fra Dogum Domaranna, sem ad dæmt hofdu Israel, og um alla Tijd Israels og Juda Konga.

23. Enn a þvi aatianda aare Josia Kongs voru þesser Paaskar halldner DROTTne j Jerusalem.

24. Og Josia afmaade alla þa ed fooru med Spaafarer, Teikna Utleggiara, Bijlæte, og Skwrgod, og allar Svijvirdingar sem saaust j Juda Lande og Jerusalem, til þess, ad hann mætte upprietta Logmaalsins Ord, sem ad skrifud stoodu j Bookinne, hvoria Hilkia Kiennemadur fann j DROTTins Hwse.

25. Þar var eingenn Kongur fyrer hann sem hans Lijke være, hvør ad so wt af ollu Hiarta, og af allre Saal, og af ollum Mætte snere sier til DROTTins, epter ollu Moses Logmaale, og ei kom nockur epter hann sem hans Lijke være.

26. Þo snere DROTTenn sier ecke fra sinne mikillre grimmdar Reide, sem hann var styggdur med, yfer Juda, fyrer allt þad ed Vonda med hvøriu Manasses hafde uppvaked hann,

27. Og DROTTinn sagde, Eg vil og burtkasta Juda fra minne Augsion, so sem Eg burtkastade Israel, Eg vil og burtkasta þessum Stad, hvorn Eg wtvalde, sem er Jerusalem, og þvi Hwse um hvort Eg sagde, Mitt Nafn skal þar vera,

II. 28. Hvad meira er ad seigia um Josia, og allt þad hann giørde, Sia, þad er skrifad j Juda Konga Chroniku.

29. A hans Dogum foor Pharao Necho, Kongur af Egyptalande, upp jmoote Kongenum af Assyria, til þess Vatns Phrath, Enn Kongurenn Josias foor jmoot hønum, og andadest j Megiddo, epter þad hann hafde sied hann.

30. Og hans Þienarar færdu hann daudann fra Megiddo, og fluttu hann til Jerusalem, og jordudu hann j sinne Grof. Enn Landsins Folk took Joachas, Son Josia, og smurdu hann, og settu hann til Kongs j sijns Fodurs Stad.

III. 31. Joachas hafde þriu aar um Tvitugt þa hann vard Kongur, og rijkte Þria Maanude j Jerusalem, Hans Moder hiet Hamutal, Dotter Jeremiæ, af Libna,

32. Og hann giørde þad sem DRottne jlla lijkade, so sem hans Forfedur høfdu giørt.

33. Enn Pharao Necho took hann til faanga j Riblath, j Lande Hemath, so hann skyllde ecke rijkia j Jerusalem, og hann lagde Skattgialld uppa Landed, Hundrad Centener Silfurs, og eitt Centener Gulls.

IV. 34. Og Pharao Necho sette Eliachim,

Son

Son Josiæ, til Kongs, j sijns Fodurs Stad Josia, og snere hans Nafne, og liet hann heita Joachim. Enn hann took Joachas, og færde hann j Egyptaland, þar andadest hann.

35. Og Joachim gaf Pharao þad Silfur og Gull. Þo lagde hann Fiegialld a Landed þar til, so hann mætte vtgiefa sama Silfur, epter Pharaonis Bifalningu, hann lagde þetta Fiærgialld Silfurs og Gulls a hvorn Mann j Landenu, epter sijnum Mætte, so ad hann mætte þad giefa Pharao Necho.

36. Joachim var Fimm og Tuttugu æra gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Ellefu ær j Jerusalem. Hans Moder hiet Sebuda, Dotter Pedaia, af Ruma.

37. Og hann giorde þad sem DROTTne jlla lijkade, so sem hans Forfedur giordu.

## XXIV. Capitule.

Um Rijkes Stiorn (I) Joachims; (II) Joachins; og (III) Zedechiæ.

I. A Hans Dogum foor upp Nabuchodonosor, Kongur af Babylon, og Joachim vard honum undergiefenn j Þriu ær. Og hann snere sier, og fiell fra honum.

2. Og DROTTinn liet koma yfer hann Strijdsfolk af Chaldea, af Syria, af Moab, og af Bornum Ammon, og liet þa koma j Juda, so þeir skylldu fyrerkoma honum, epter Orde DRottins, sem hann hafde talad fyrer Spaamennena, sijna Þienara.

3. Þad skiede Juda so epter DRottins Ordum, ad hann varpade þeim fra sinne Asioonu, sokum Manasses Synda, sem hann hafde giort.

4. Og fyrer sokum þess Saklausa Bloods sem hann uthellte, og fyllte Jerusalem med saklaust Blood, þad villde DRottinn ecke fyrergiefa.

5. Hvad meira er ad seigia um Jojakim, og allt hvad hann giorde, Sia, þad er skrifad j Juda Konga Chronicu.

6. Og Jojakim sofnade med sijnum Fedrum, og hans son Jojachin vard Kongur j hans stad.

7. Og Kongur Egyptalands foor ecke þadann j fra af sijnu Lande, Þvi Kongurenn af Babylon hafde teked fra honum allt þad, sem Egyptalands Kongur ætte, fra Egyptalands Læk, og allt ad Vatnenu Phrath.

II. 8. Jojachin var ætian Aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte þria Mæanude j Jerusalem. Hans Moder hiet Nehusta, Dotter Elnathan, af Jerusalem.

9. Og hann giorde þad sem DRottne jlla lijkade, so sem hans Fader hafde giort.

10. A þeim Tijma fooru Þienarar Nabogodonosor, Kongs af Babylon, upp til Jerusalem, og Stadurenn vard umsetinn.

11. Og þa Nabogodonosor kom til Borgarennar, med sijnum Þienorum, setteſt hann um hana.

12. Enn Jojachin, Kongurenn af Juda, gieck ut a moote Kongenum af Babylon med sinne Modur, med sijnum Þienorum, og med sijnum Hofdingium og Herbergis sveinum. Og Kongurenn af Babylon took hann, a þvi ættunda Aare hans Kongs Rijkis.

13. Og hann took j burt þadann alla þa Fiesiodu j Drottins Huse, og j Kongsins Hvose, og braut j sundur øll Gullkier sem Salomon, Jsraels Kongur, hafde giora laated j Mustere DROTTins, so sem DROTTinn hafde sagt.

14. Og hann flutte j burtu alla Jerusalem, alla Hofdingia, alla Vollduga Menn, Tiju Þusund hertekna, og alla Triesmide, og allshaattada Smide, so hann liet øngvann epter vera nema Almuga Folk j Landenu.

15. Og hann flutte Jojachin, og Kongsins Modur, Kongsins Kvinnur, og hans Herbergis Sveina, til Babylon. Hier med flutte hann og þa enu Megtugu j Landenu af Jerusalem, fangada til Babylon.

16. Og Sio Þusund af þvi Folke sem best var, og Þusund Triesmide, og Hagleiks Menn, alla

alla sterka Strijds Menn, og Kongurenn af Babylon flutte pa j Babylon.

III. 17. Enn Babylons Kongur sette Mathania, hans Fodur Broodur, til Kongs j hans stad, og snere hans Nafne, og kallade hann Zedechias.

18. Zedechias hafde eitt Aar og Tuttugu ad alldre þa hann vard Kongur, og hann rijkte Ellefu Aar j Jerusalem, hans Moder hiet Hamital, Dotter Jeremia af Libna.

19. Og hann giorde þad sem DROttne illa lijkade, so sem Jojakim hafde giort.

20. Þvi þad skiede so med Jerusalem og Juda af DROTTins Reide, Þar til ad hann kastade þeim fra sinne Asionu, og Zedechias fiell fra Kongenum j Babylon.

## XXV. Capitule.

Juda Ettkvijsl er Herleidd j þad Babyloniska Fangelse og Utlegd.

Enn þad skiede so, a Nijunda Aare hans Kongsrijkis, a þess Tijunda Maanudar Tijunda Deige, þa kom Nabogodonosor, Kongur af Babylon, med allre sinne Magt a moote Jerusalem, og þeir settust um hana, og biggdu Virke jkringum hana.

2. So vard Stadurenn umsetenn, allt til Ellefta Aars Kongsins Zedechia.

3. Enn a þeim Nijunda Maanade vard Hungred megnt j Stadnum, so ad Landsfolked hafde eckert ad eta.

4. Þa var brotest jnn a Stadenn, og aller Strijdsmennerner flydu um Noott, a þeim Ports Veige a millum þeirra tveggia Muura sem liggur til Kongsins Urtagards, (Enn þeir Chaldei laau um Stadenn). Enn (a) hann flyde a þann Veg sem liggur til þeirrar Sliettu Merkur.

(a) (Hann flyde) þad er, Zedechias.

5. Enn Magt þeirra Chaldaisku sookte epter Kongenum, og gripu hann a þvi sliettlende hiaa Jericho, og allt þad Strijdsfolk sem var med honum sundurdreifdest fraa honum.

6. Enn þeir gripu Kongenn, og færdu hann upp j Riblath, til Kongsins af Babylon, Og þeir felldu Dom yfer hann.

7. Og þeir slaatrudu Bornum Zedechia fyrer hans Augum, og þeir blindudu Zedechiam a hans Augum, og bundu hann med Kedium, og fluttu hann til Babylon.

8. A Fiounda Deige, j þeim Fimmta Maanade, þad er þad Nijtianda Aar Nabogodonosors, Kongs af Babylon, þa kom Nebusar Adan, Hofmeistare, Kongsins Þienare af Babylon, til Jerusalem.

9 Og hann brennde upp DROTTins Hus, og Kongsins Hus, og oll Hus j Jerusalem, og oll stoor Hus brennde hann upp med Ellde.

10. Og oll Magtenn þeirra Chaldaisku, sem var med Hofmeistaranum, braut nidur Murenn j kringum Jerusalem.

11. Enn þad annad Folk sem epter var orded j Stadnum, og þeir sem gaafu sig til Kongsins af Babylon, og þad annad Mwga Folk flutte Nebusar Adan, Hofmeistare, j burtu.

12. Enn Hofmeistarenn liet epter j Landenu þa hina minnstu hvattar Vijngards Menn og Bændur.

13. Og þeir Chaldei sundurbrutu þa Koparstolpa, j DROttins Huse, og Stoolana, og þad Koparhaf sem var j DROTTins Huse, og færdu Koparenn j Babylon.

14. Og Katlana, Skuflurnar, Knijfana, Skeidernar, og oll Koparkierenn, sem til Þionustunnar voru hofd, tooku þeir burt.

15. Þar til took Hofmeistarenn þær Ponnur og Munnlaugar sem voru af Gulle og Silfre.

16. Tvo stoolpa, eitt Haf, og þa Stoola sem Salomon hafde giort til DROTTins Huss. Enn Koparenn vard ecke veigenn af ollum þessum Kierum.

17. Eirn stoolpe var aatian Alna hæar, og hans Knappur þar ofann a var og so af Kopar, og þriggia aalna hæar, og Streingerner

ner og Granat-Eplenn riett um kring Knappenn, þad var allt af Kopar, J sama Maata var og sa annar Stoolpenn med Streingiunum.

18. Og Hofmeistarenn took Prestinn Seraja, sem var af Firstu Ordu, og Prestenn Sephania, sem var af Annare Ordu, og þria Dyravaktara.

19. Og eirn Herbergissvein af Borgenne, sem var settur yfer Strijdsmennena, og þa Fimm Menn sem alltijd voru fyrer Konge-num, og fundner voru j Stadnum, og Sopher, Strijds-Hofuds Mann, sem lærde Folked j Landenu ad beriast, og Sextijge Menn af Landsins Folke sem fundust j Stadnum.

20. Þessa took Hofmeistarenn Nebusar Adan, og færde þa til Kongsins af Babylon til Riblath,

21. Og Babylons Kongur sloo þa j hel j Riblath, j Lande Hemath. So vard Juda burtfluttur ur sijnu Lande.

22. Enn Nabogodonosor, Kongur af Babylon, sette Gedalia, son Ahikam, sonar Saphan, yfer þad Folk sem hann liet epter vera j Juda.

23. Enn sem allt Strijdsfolked, Hofudsmennerner, og Mennerner heyrdu þad, ad Kongurenn af Babylon hafde sett Gedaliam, þa komu þeir til Gedalia til Mizpa, sem var, Jsmael, son Nethania, og Johanan, son Kareah, og Seraja, sonur Thanhumeth, Methophatither, og Jaesania, son Maechati, med sijna Menn.

24. Og Gedalia soor þeim og þeirra Monnum, og sagde til þeirra, Otteist ecke ad vera undergiefner þeim Chaldaisku, veed j Landenu, og vered Babylons Konge undergiefner, þa skal þad ganga ydur vel.

25. Enn a þeim Sioinnda Maanude kom Jsmael, son Nethania, sonar Elisama, af Konunglegre Ætt, og tiju Menn med honum, og sloou Gedalia j hel, og þar til þa Gydinga og Chaldeos sem voru hia honum j Mizpa.

26. Þa took sig upp allt Folked, bæde smaaer og stoorer, og þeir yppurstu sem voru fyrer Strijdsfolkenu, og komu j Egyptaland, Þviad þeir oottudust þa Chaldeos.

27. A þvi Seitianda og Tuttugasta Aare, epter þad ad Jojachin, Kongur af Juda, vard j burt fluttur, þann Sioinnda og Tuttugasta Dag, a þeim Tolfta Maanude, þa upphoof EvilMerodach, Kongur af Babylon, a firsta Aare sijns Rijkis, Hofud Jojachin, Juda Kongs, af Myrkva stofu.

28. Og talade vingiarnlega vid hann, og sette hans Stool yfer þeirra Konga Stoola sem voru hia honum j Babylon.

29. Og hann umskipte hans Fangelsis Klædum, Og hann aat ætijd hia honum, alla sijna Lijfsdaga.

30. Og hann skickade honum sinn Deil, sem Mann gaf honum alltijd af Kongsins, hvorn Dag, alla hans Lijfs Tijd.

Ender a þeirre Annare Konga Bookenne.

# Paralipomenon.

# Su Firre Chronicu Bookenn.

## I. Capitule.

Ættar Tala Forfedranna (I) fra Adam til Noa; (II) fra Noa til Abraham, hvers Nidiar verda uptalder; (III) fra Jsmael; og (IV) fra Jsaak.

Adam, Seth, Enos, *
* Luc. 3, 23.
2. Kenan, Mahalaleel, Jared.
3. He-

# XIV. Capitule.

Drottens Ørk ætte ad setiast i Jerusalem, enn er lætinn standa i Huse Obed-Edoms.

XIII. Cap. Og David hiellt Raadstefnu vid Hofudsmennena, yfer Þusund, og yfer Hundrad, og vid alla Hofdingiana.

2. Og sagde til alls Israels Safnadar, Ef þad þocknast ydur, og sie þad af Drottne GUde vorum, Þa lætum oss senda vt Bod allstadar, til annara vorra Brædra, um allt Israels Land, og med þeim til Prestanna, og Levitanna j Stødenum, þar sem þeir hafa Forstade, ad þeir safnest saman til vor.

3. Og lætum oss sækia vors Guds Ørk aptur til vor, þvi j Sauls Tijd hirdtum vier ecke um hana.

4. Þa sagde allur Sofnudurenn, ad Menn skylldu so giora, þviad þetta þocknadest ollu Folkenu vel.

5. So safnade David saman ollu Israels Folke fra Sihor Egyptalands, allt til Madur kiemur til Hemath, ad sækia Guds Ørk til KiriathJearim.

6. Og David foor upp med ollum Israel til KiriathJearim, sem liggur j Juda (Lande) til ad sækia Ørk DROTTins Guds þangad sem situr yfer Cherubim, þar sem Nafned verdur akallad.

7. Og þeir lietu Guds Ørk uppa eirn nyann Vagn, og færdu hana fra Hwse Abinadab. Og Usa og Ahio koku Vagnenn.

8. Og David og allt Israels Folk liek fyrer Gude af ollu Megne, med Saung, med Horpum, og Psollturum, med Trumbum, med Cimbalis, og med Basunum.

9. Enn sem þeir komu a Chidons Sliettlende þa votriette Usa sijna Hond, ad hallda vid Ørkenne, þviad Uxarner geingu vt a Sijduna.

10. Þa gramdest DROTTins Reide yfer Usa, og sloo hann, fyrer þad hann vtriette sijna Hond til Arkarennar, so hann do þar strax fyrer Gude.

11. Þa vard David hriggur, ad Drottinn giorde soddann Skard a Usa, og kallade þann Stad Perez Usa, allt til þessa Dags.

12. Og a þeim sama Deige ottadest David GUd, og sagde, Hvornenn ma eg flytia Guds Ørk til mijn?

13. Og þvi liet hann ecke færa Guds Ørk til sijn, j Davids Stad, helldur veik henne j burt j Hwos ObedEdom Githitha.

14. So var Guds Ørk hiaa ObedEdom j hans Hwse j Þria Maanude, og DROTTinn blessade Hwos ObedEdoms, og allt hvad hann hafde.

# XV. Capitule.

Her greiner nockud (I) um Davids Børn; Og (II) Strijd vid Philistea.

XIV. Cap. I. Og Hiram, Kongurenn j Tyro, sende Sendemenn til Davids, og Cedrus Vidu, Mwrmeistara, og Triesmide, ad þeir skylldu biggia honum eitt Hwos,

2. Enn David merkte, ad DROTTinn hafde stadfest hann til Kongs yfer Israel, þvi hans Rijke hofst upp, sokum hans Folks Israels.

3. Og David took sier enn fleyre Kvinnur j Jerusalem, og gat enn fleyre Syne og Dætur.

4. Og þeir sem honum fædduft j Jerusalem hietu so, Sammua, Sobab, Nathan, Salomon.

5. Jebehar, Elisua, Elipháleth.

6. Noga, Nepheg, Japhia.

7. Elisamma, BaelJada, og Elipháleth.

II. 8. Enn sem Philistei heyrdu þad, ad David var smurdur til Kongs yfer allann Israel, fooru þeir aller upp ad sækia epter David. Enn sem David heyrde þad, foor hann ut j moote þeim.

9. Og Philistei komu og utdreifdu sier nidur j Rehaims Dal.

10. Enn

10. Enn David leitade raads til Guds, og sagde, Skal eg fara upp til moots vid Philisteos, og villt Þu giefa þa j mijna Hond? DROTTinn sagde til hans, Far upp, Eg hefe giefed þa j þijna Hond.

11. Og sem þeir fooru upp til Baal Prazim þa sloo David þa þar, og David sagde, Gud hefur sundurdreift mijnum Ovinum fyrer mijna Hond, so sem þa Votn j sundurskiliast, Þar af kolludu þeir þann sama stad BaalPrazim.

12. Og þar lietu þeir epter sijna Afgude, Enn David baud ad brenna þa upp med Ellde.

13. Og Philistei sofnudust samann j annad sinn, og logdu sig nidur j Dalnum.

14. Og David spurde enn Gud ad. Og Gud sagde til hans, Þu skallt ecke fara upp til baka vid þa, helldur beygia þig fra þeim, so þu meiger komast ad þeim, þvert yfer fraa Morberiatrioanum.

15. Og þegar þu heyrer þa, ad þytur framm upp j Morberiatrioanum, far þa ut til Bardaga, Þviad Gud er þa utfarenn undann þier, ad sloa Her þeirra Philistinorum.

16. Og David giorde sem Gud baud honum, og þeir sloou Her Philistinorum fraa Gibeon, jnn til Gaser.

17. Og Davids Nafn vijdfrægdest um oll Lond, og DROTTinn liet hans Otta koma yfer alla Heidingia.

## XVI. Capitule.

DRottens Ork er færd af Levitunum fra Huse Obed Edoms til Jerusalem.

XV. Cap. Og hann biggde sier eitt Hwos j Davids stad, Og hann tilreidde eirn stad, þar ed Guds Ork skyllde standa, og tilreidde eina Tialldbud yfer henne.

2. J þann Tijma sagde David, Eingenn skal bera Guds Ork nema Levitarner. Þviad DROttinn wtvalde þa til ad bera DROttins Ork, og ad þiona honum æfenlega.

3. Og þvi safnade David ollum Israel til samans j Jerusalem, ad þeir skylldu flytia DROTTins Ork upp til þess stadar, sem hann hafde henne tilreidt.

4. Og David samansafnade Bornum Aarons, og Levitunum.

5. Af Kahaths Bornum, Hofdingia Uriel, med hans Brædrum, Hundrad og Tuttugu.

6. Af Merari Bornum, Asaja Hofdingia, med hans Brædrum, Tvo Hundrud og Tuttugu.

7. Af Bornum Gersons, Hofdingia Joel, med hans Brædrum, Hundrad og Þriatijge.

8. Af Bornum Elizaphans, Hofdingia Semaja, med hans Brædrum, Tvo Hundrud.

9. Af Hebrons Bornum, Hofdingia Eliel, med hans Brædrum, aattatijge.

10. Af Bornum Usiel, Hofdingia Amminadab, med hans Brædrum, Hundrad og Tolf.

11. Og David kallade Zadok og AbJathar Kiennemenn, og Levitana, sem voru, Uriel, Asaja, Joel, Semaja, Eliel og Amminadab,

12. Og sagde til þeirra, Þier erud þeir yppurstu Fedranna a medal Levitanna, So helged ydur nu og ydar Brædur, so þier færed DROttins Israels ydar Guds Ork upp hingad, j þann stad sem eg hefe tilreidt henne,

13. Þvi aadur, þa þier vorud ecke nalæger, þa giorde DROTTinn Vor Gud eitt Skard a medal vor, þviad vier leitudum ecke hans so sem oss bar.

14. So helgudu sig nu Prestarner og Levitarner, ad þeir bære DROTTins Guds Israels Ork.

15. Og Levi Born baaru DROttins Guds Ork a sijnum Oxlum, med Stongunum þar a, so sem Moses hafde boded, epter Orde DROTTins.

16. Og David talade til þeirra yppurstu af Levitonum, ad þeir skylldu skicka sijnum Brædrum til Saungvara, med Streingia Hliodfærum, med Psollturum, Horpum,

og Cymbalum, ad þeir skylldu syngia hvarre Noddu, med Glede.

17. Þa settu Levitarner til Heman, son Joel, og af hans Brædrum, Assaph, son Berechia. Og af Merari Börnuin, þeirra Brædrum, Ethan, son Kusaja,

18. Og þeirra Brædur med þeim, j þann annann Part, sem var, Sacharia, Ben Jaesiel, Semiramoth, Jehiel, Unni, Eliab, Benaja, Maeseja, Mathitia, Elipheleja, Michneia, ObedEdom, og Jeiel, Dyravordsumenn.

19. Þviad Heman, Assaph, og Ethan, voru Saungvarar, og hliomudu klarlega med Kopar Cymbalis,

20. Enn Sacharia, Asiel, Semiramoth, Jehiel, Unni, Eliab, Maeseja, og Benaja, med Psollturum, epter ad syngia.

21. Enn Mathithia, Elipheleja, Mikneja, ObedEdom, Jeiel, og Asasia, med Horpur af atta Streingium, ad syngia fyrer þeim.

22. Og ChenanJa, sa Levitanna yppарste Saungmeistare, ad hann skyllde kienna þeim ad syngia, þvi hann var hyggenn.

23. Og Berechia, og Elkana voru Dyraverder fyrer Ørkinne.

24. Enn Sachanja, Josaphat, Nethaneel, Amasai, Sacharja, Benaja, og Elieser Prestar bliesu j Basunur fyrer Guds Ørk, Og ObedEdom og Jeheia voru Dyraverder Arkarennar.

25. So gieck David og þeir enu Ellstu j Israel, og Hofdingiarner yfer Þusund, upp, ad sækia Sattmaals Ørk DRottins, wr Hwse ObedEdoms med Glede.

26. Og sem Gud hialpade Levitonum, þeim sem baaru DRottins Sattmaals Ørk, þa offrudu Menn sio Uxum, og sio Hrwtum.

27. David var klæddur einum Linkyrtle, og so aller Levitarner sem Ørkena baaru, og Songvararner, og Chenanja Saungmeistare, med Saungmonnonum, David var og klæddur Lin Lijfkyrtle.

28. So flutte allur Israel Drottins Sattmaala Ørk upp med Glede, med Basunum, Trametum, og klarum Cimbalum, Psolltorum, og Horpum.

29. Enn sem DROTTins Sattmaals Ørk kom jnn j Davids Stad, þa leit Michol, Dotter Sauls wt um Gluggann, og sem hun sa, ad David Kongur dansade, og liek, þa fyrerleit hun hann j sijnu Hiarta.

## XVII. Capitule.

DRottens Ørk er sett med miklum Hiartans Fagnade nidur j Tiall-budenne j Jerusalem.

XVI. Cap. Enn sem þeir hofdu nu jnnfært Guds Ørk, settu þeir hana j Tialldbwdena, þa sem David hafde uppreist til hennar, og færdu Brennefoorner og Packlætis Foorner fyrer Gude.

2. Enn sem David hafde fullkomnad Brenneoffred og Packlætisoffred þa blessade hann Folked j Nafne DROTTins.

3. Og hann wtskipte sierhvorium Manne j Israel, bæde Korlum og Konum, einu Braude, og einu Sticke af Kiote, og einne Nyt Vijns.

4. Og hann sette nockra af Levitonum fyrer Ørk DROTTins, til ad þiona þar, ad prijsa, þacka, og lofa DROTTinn Gud Israels, sem var,

5. Assaph sa firste, annar Sacharia, Jeiel, Semiramoth, Jehiel, Mathithja, Eliab, Benaja, ObedEdom, og Jeiel, med Psølltorum og Hørpum, og Assaph med klarum Cimbalis.

6. Og Benaja og Jehasiel Prestar med Trametum alltijd fyrer DROttins Sattmals Ørk.

7. A þeim Tijma tilskickade David first ad þacka DROTTni, fyrer hond Assaph, og hans brædra.

8. * Packed DROTTni, akalled hans Nafn, kunngiøred hans Giørninga medal Folksins. * Psal. 105, 1.

9. Synged og spiled fyrer honum, Taled um oll hans Dasemdarverk.

10. Veg-

10. Vegsamed hans heilaga Nafn, þeirra Hiortu gledie sig, sem leita ad DROttni.

11. Leited ad DROttne, og hans Magt. Leited alltijd epter hans Andlite.

12. Minnest a hans Doadsemdarverk sem hann hefur giort, a hans Furduverk, og a hans Ord.

13. Þier Israels hans Þienara Sæde, þier Born Jacobs, hans Utvalder.

14. Hann er DROttinn Vor Gud, Hann er Doomare yfer allre Verolldenne.

15. Minnest æfenlega a hans Soattmoala, Hvad hann hefur lofad j Þusund Ætter.

16. Hvorn hann giorde vid Abraham, Og a hans Eid vid Isaac.

17. Og hann sette þad Jacob til eins Riettar, Og Israel til eins Eilijfs Soattmoala.

18. Og sagde, Eg vil giefa þier Canaans Land, ydart Erfda Hlutskipte.

19. Þa þeir voru foaer og litler, og Utlender þar jnne.

20. Og þeir fooru froa einu Folke til annars, Og froa einu Kongarijke til annars Folks.

21. Ongvann Mann liet hann þeim skada giora, Og hann straffade Kongana fyrer þeirra skulld.

22. Komed ei vid mijna Smurda, Og giored mijnum Spoamonnum eckert jllt.

23. Oll Lond synged DROttni, Kunngiored daglega hans Hioalpræde.

24. Framntelied hans Dyrd medal Heidingianna, Og Doadsemdarverk hans a medal Folksins.

25. Þviad DROttinn er Mikell og miog loflegur, Og Dyrdlegur yfer alla adra Gude.

26. Þvi aller Heidingianna Guder eru Skurgod, Enn DROTTinn giorde Himenenn.

27. Þad stendur dyrdarlega og kostulega fyrer honum, og geingur megtuglega, og gledelega til j hans stad.

28. Þier Þiodir, Færed DROttni hingad. Færed DROTTni hingad Heidur og Magt.

29. Færed DROttins Nafne Vegsemd hingad, Færed Goafur, og komed fyrer Hann, Og tilbidied DROttinn j Heilagre Pryde.

30. Oll Verolldinn oottist hann, Hann tilreidde Jordena, ad hun skyllde ecke hræraſt.

31. Himnenn gledie sig, og Jordenn Fagne, Og seige Menn a medal Heidingianna ad DROttinn rijker.

32. Hafed þioote upp, og hvad þar jnne er, Og Landed gledie sig, og Allt sem er a þvi.

33. Og lœted oll Trien gledia sig j Skoogenum fyrer DROTTne, þvi hann kiemur ad dæma Jordena.

34. Þacked þier DROTTne, þvi hann er Goodur, og hans Miskunseme varer ad eylijfu.

35. Og seiged, Hioalpa oss GUd Vor Frelsare, og samansafna oss, og frelsa oss fra Heidingium, So vier mættum þacka þijnu Heilaga Nafne, og þier Lof seigia.

36. Lofadur sie DROTTinn Israelis GUd, fra Eylijfd til Eylijfdar, Og allt Folked seige Amen, og lofe DROTTenn.

37. So liet hann nu Assaph, og hans Brædur, þar epter, hioa Soattmoals Orkenne DROTTins, ad þiona fyrer Orkenne alltijd, hvorn Dag sitt Dags Verk.

38. Enn ObedEdom, og hans Brædur, oatta og Sextijge, og Obed Edom, Son Jedithuns, og Hossa, til Dyravaktara.

39. Og Zadok Prest, og hans Brædur Prestana, liet hann fyrer DROTTins Tialldbuud a Hædena j Gibeon.

40. Ad þeir skylldu daglega Offra Drottne Brenneforner yfer Brennefornar Alltare, Morgna og Kvolld, og epter ollu þvi sem þar stendur skrifad j DROTTins Logmoale, sem hann baud Israel.

41. Og Heman, og Jedithun med þeim, og þa adra votvalda, sem a Nafn voru nefnder, til ad þacka DROTTne, ad hans Miskunsemd varer Eylijflega.

42. Og Heman, og Jedithun med þeim, ad hlioma med Trametum og Cimbalis, og med Guds

Guds Streingleikum, Enn hann giørde Born Jedithuns til Dyravardhallds Maña.

43. Sijdann for allt Folk j burt, hvor j sitt Hws. David snere og j burt, ad bless sa sitt Hws.

## XVIII. Capitule.

David' fær Fyrerheite um Messias, þa hann vill biggia Drottine Eitt Hus i Jerusalem.

XVII. Cap. Pad skiede þa David bio j sijnu Hwse, ad hann sagde til Nathans Spamanns, Sioa, Eg by j einu Cedrus-vidar Hwse, enn DROTTins Sattmaals Ørk er under Tialldþake.

2. Nathan sagde til Davids, Allt hvad þier byr j Hiarta, þad gior þu, þvi GUD er med þier.

3. Enn a þeirre somu Nott kom Ord DROTTins til Nathans, og sagde.

4 Far burt og seig til mijns Pienara Davids, So seiger DROTTinn, Ecke skalltu mier Hws til Ibwdar biggia.

5. Þvi Eg hefe ecke bwed j nockru Hwse, fra þeim Deige ad Eg wtleidde Israels Born, allt til þessa Dags, helldur var Eg þar sem Tialldbwdenn og Hybyled var.

6. Hvar sem Eg hefe ferdast j ollum Israel, Hef Eg og nockurn Tijma talad til nockurs Domara j Israel, hvorium Eg baud ad fæda mitt Folk, og sagt, Þvi biggied þier mier ecke eitt Hws af Cedrus Vide?

7. Þar fyrer seig þu so til mijns Pienara Davids, So seiger DROTTinn Zebaoth, Eg took þig wr Haganum a bak vid Fied, ad þu skyllder vera eirn Hofdinge yfer mitt Folk Israel.

8. Og Eg hefe vered med þier hvort sem þu hefur fared, og þijna Ovine hef Eg upprætt fyrer þier, og Eg hefe giort þier eitt Nafn, so sem þeir enu stooru a Jordunne hafa Nafn.

9. Og Eg vil setia mijnu Folke Israel Stad, og Eg vil planta þad, ad þeir bwe þar, so þad hræreft ecke framar meir. Og þad Vonda Folk skal ecke meir þrickia þad under, so sem adur.

10. Fra þeim Tijma, sem Eg baud, ad þar skylldu vera Domendur yfer mitt Folk Israel. Eg vil nidurþrickia alla þijna Ovine, og seigia þier, ad DROTTinn vill uppbiggia þier eitt Hws.

11. Enn þegar þijner Dagar eru wte, ad þu fer burt til þinna Fedra, þa vil Eg uppvekia þitt Sæde epter þig, sem ad vera skal einn af þijnum Sonum, hans Rijke vil Eg stadfesta.

12. Hann skal biggia mier eitt Hws, og Eg vil stadfesta hans Stool Eylijflega.

13. Eg vil vera hans Fader, og hann skal vera minn Sonur. Og minne Miskunseme vil Eg ei snwa fra honum, so sem Eg took hana fra þeim sem ed var fyrer þig.

14. Helldur vil Eg setia hann j mitt Hws og j mitt Rijke Eylijflega, og hans Stoll skal Eylijflega stodugur standa.

15. Og þa Nathan hafde talad epter ollum þessum Ordum, og þessare Syn, vid David,

16. Þa kom David Kongur og var fyrer Drottni, og sagde, Hver em Eg, DROttinn GUD? Og Hvad er mitt Hws, þad þu hefur flutt mig allt hingad?

17. O GUD! þad hefur þier þo þott vera oflijted, helldur hefur þu talad yfer þijns Pienara Hwse, um þad sem framm skal koma, laungu sijdar. Og þu hefur oalited (a) mig, so sem j eins Manns Mind, sem j Hædinne er GUD DROTTinn.

(a) (Mig) Pad er, ecke mijna Persónu, helldur mijns Bloods Epterkomara, sem koma mun laungu hier epter, hver ed verda mun soddann Madur, sem er GUD DROTTinn j Hædenne. Psalm. 89, 7. Hver kann ad vera Gude lijkur a medal Guds Barna? Hann er og Guds Barn, enn langtum ædre odrum Guds Bornum, sem sa ed Sialfur er GUD.

18. Hvad skal David nu meir seigia til þijn, ad þu vegsamlegann giorer þinn Pienara? Þu þecker þinn Pion.

19. DROTTinn! vegna þijns Pions, epter þijnu Hiarta hefur þu giort alla þessa mikla

mikla Hlute, ad þu villder opennbera alla Dyrd.

20. DROTTinn! Ecke er þinn Lijke, og eingenn er GUd utann þu, epter ollu þvi sem vier hofum heyrt med vorum Eyrum.

21. Og hvar er nockurt Folk a Jordunne slijkt sem þitt Folk Jsrael? Ad eirn GUd er farenn til ad endurleysa sier eitt Folk, og ad giora sier sialfum eitt Nafn af miklum og hrædelegum Hlutum, ad burtdrijfa Heidingiana fyrer þijnu Folke, hvort þu frelsader af Egyptalande?

22. Og giorder þier þitt Folk Jsrael til eins Folks, ad Eylijfu, og þu DROttinn ert ordenn þeirra GUd.

23. Nu DROTTinn! þad Ord sem þu talader yfer þijnum Þienara, og yfer hans Hwse, sie þad æfennlega satt, og gior sem þu hefur sagt.

24. Og ad þitt Nafn sie satt og æfinnlega storrt, so menn meige seigia, DROTTinn Zebaoth, Jsraels GUd, er GUd j Jsrael, og Hws þijns Þienara Davids verde stadfast fyrer þier.

25. Þvi þu DROTTinn hefur opinnberad fyrer Eyrum þijns Þienara, ad þu viller biggia honum eitt Hws, þar fyrer hefur þinn Þienare funded, ad hann tilbidur fyrer þier.

26. Nu DROTTinn, Þu ert GUd, og þetta hid Gooda hefur þu talad til þijns Þienara.

27. Tak nu til ad blessa Hws þijns Þienara, so ad þad sie æfennlega fyrer þier, Þviad hvad þu blessar DROTTinn, þad er blessad æfennlega.

## XIX. Capitule.

David (I) brytur Ovine sijna under sig; Og (II) skipar duganlega Menn til Þ.er Vallds og Kirkiu Þionustunnar.

XVIII. Cap. I. Epter þetta sloo David Philisteos, og underlagde þa, og hann took (Borg) Gath, og hennar Dotter, af Hende Philistinorum.

2. Hann sloo og þa Moabita, So ad Moabitar urdu David undergiefner, og þeir færdu honum Skeinkingar.

3. Hann sloo og Hadad Eser, Kongenn af Zoba, j Hemath, þa hann foor ad uppsetia sitt Teikn hia Vatnenu Phrath.

4. Og David vann Þusund Vagna fra honum, og Sio Þusund Riddara, og Tuttugu Þusund Footgongulids. Og David leste alla þeirra Vagna, enn hiellt epter Hundrad Vognum.

5. Og þeir Syri af Damasco komu til lids vid HadadEser, Kongenn af Zoba. Enn David sloo af þeim somu Syris Tvær og Tuttugu Þusunder Manna.

6. Og hann sette Folk j Damasco j Syria, so þeir Syri urdu David undergiefner, og færdu honum Skeinkingar, þviad DROttinn hialpade David, hvort helst sem hann foor.

7. David took og þa Gullskiolldu sem HadadEsers Þienarar hofdu, og flutte þa til Jerusalem.

8. David took og af Borgum HadadEsers, Tibehath, og Chun, miog mikenn Kopar, af hverium Salomon giorde þad Koparhafed, Stoolpana, og þau Koparkierenn.

9. Og sem Kongurenn Thogu af Hemath heyrde þad, ad David hafde sleiged og nidurlagt alla Magt Kongsins HadadEsers af Soba,

10. Þa sende hann sinn Son Hadoram til Davids Kongs og liet heilsa honum, og (a) blessa hann, ad hann hafde barest vid HadadEser, og sigrad hann, þviad Thogu hafde att Strijd vid HadadEser.

(a) (Blessa) Þad er, Luchu, og Velferdar ad oska.

11. Og oll Gullkier, Silfurkier, og Koparkier, þau helgade David Kongur Drottni med þvi Silfre, og Gulle, sem hann hafde teked fra Heidingiunum, sem var fra Edomitum, Moabitum, Ammonitum, Philisteorum, og Amalechitum.

12. Og Abisai, Son Zeruja, sloo atian

Pusunder af Edomitum j Sallt Dalnum,

13. Og sette Folk j Edomea, so ad aller Edomitar voru David undergiefner, þvi DROTTinn hiaalpade David, hvort hellst sem hann foor.

II. 14. Svo rijkte nu David yfer allann Israel, og hiellt Dom, og Riettinðum vid Magt a medal alls siins Folks.

15. Joab, Son Zeruia, var Hershofdinge. Josaphat, Son Ahilud, var Cantzeler,

16. Zadok, Son Ahitobs, og Abimelech, Son Abjathars, voru Kiennemenn. Savsa var Ritare.

17. Benaja, Son Jojada, var settur yfer Chreti, og Plethi, og Firstu Syner Davids voru (b) hiaa Kongsins Hende.

(b) (Hiaa Kongsins Hende.) Þad er, hans nærstu Legatar og Herbergis Sveinar.

# XX. Capitule.

Þeir Ammonitar (I) smaana þa sem David sende til þeirra; En (II) falla i Bardaga fyrer Davids Lide.

XIX. Cap. I. Epter þetta andadest Nahas, Ammons Barna Kongur, og hans Son vard Kongur j hans Stad.

2. Þa þeinkte David, Eg vil veita Miskun Hanon, Syne Nahas, þvi hans Fader veitte mier Miskun. Og hann sende Menn þangad, og liet hugga hann, yfer siinum Fodur. Og þa Davids Þienarar komu j Ammons Barna Land, til Hanon, ad hugga hann,

3. Þa sogdu Ammons Barna Hofdingiar til Hanon, Hyggur þu ad David heidre þinn Fodur fyrer þiinum Augum, ad hann sender Huggendur til þijn? Ja, hans Þienarar eru komner til þijn, ad rannsaka, og (a) umbillta, og ad niosna um Landed.

(a) (Umbillta) Lijka sem Madur snyr og billter einum hlut, og skodar hann, bæde Bak og Fyrer, þann sem hann vill gaumgiæfelega þeckia.

4. Þa took Hanon Davids Þienara og rakade þa, og skar af þeim hoalf Klædenn allt ad Piohnappum, og liet þa fara.

5. Og þeir geingu af stad, og lietu undervijsa þetta David af Monnum. Og hann sende j moote þeim (Þvi Mennerner voru miog lytter) og Kongurenn sagde, Vered j Jericho, þar til ydar Skiegg vex, epter þad komed aptur.

II. 6. Og er Born Ammons saau þad, ad þau luktudu illa fyrer David, þa sendu þeir, bæde Hanon og Ammons Born, Pusund Centener Silfurs, ad leigia sier Vagna og Riddaralid, af Mesopotamia, af Maecha, og Zoba.

7. Og þeir leigdu Tolf og Tuttugu Pusund Vagna, og Kong Maecha med siinu Folke. Þeir komu og settu Herbooder hiaa Medba. Og Born Ammons sofnudust og samann af þeirra Borgum, og komu til Bardagans.

8. Enn sem David spurde þetta, þa sende hann Joab med allann Kappa Herinn.

9. Og Ammons Born voru vt farenn, og fylktu Lyde siinu til Strijds, fyrer Stadarportenu. Enn Kongarner sem komner voru stadnæmdust sierilage a Vollonum.

10. Þa Joab saa nu þad, ad honum var bwenn Bardage bæde a Bak og fyrer, vtvalde hann alla yngstu Menn af Israel, og fylkte Lide siinu j moote þeim Syris.

11. Enn þad Folk sem auk var sette hann under Hond siins Broodurs Abisai, ad þeir tilbygge sig j moote Ammons Boruum.

12. Og sagde, Ef þeir Syri bera mig ofurlide, þa kom mier til hiaalpar, Enn ef Ammons Born verda þier sterkare, þa vil eg hiaalpa þier.

13. Vert hughraustur, og laat oss giora hughraustlega, vegna vors Folks, og vors Guds Stada, DROTTinn giore hvad honum þocknast.

14. Og Joab med þad Folked sem var hiaa honum riedest til Bardaga j moote Syris, Og þeir flydu fyrer honum. 15. Og

15. Og sem Ammons Born sau, ad þeir af Syria flydu, þa hielldu þeir og a flootta fyrer hans Brodur Abisai, og fooru jnn j Borgena. Enn Joab kom til Jerusalem.

16. Sem þeir af Syria sau, ad þeir voru slegner fyrer Jsrael, þa sendu þeir vt bod, og lietu sækia þa Syros, sem voru hinumeigenn Vatnsins, og Sophach, Strijds Hofudsmadur HadadEsers, var Foringe þeirra.

17. Enn sem David var þad sagt, safnade hann saman ollum Jsrael, og foor yfer Jordan, Enn sem hann kom til þeirra, þa bioost hann j moot þeim. Og David riedst til Bardaga vid Syros, og þeir sattu orustu vid hann.

18. Enn Syri flydu fyrer Jsrael. Og David sloo j hel af þeim Syris sio Þusund Vagna, og fiorutijge Þusund footganganda Lids. Þar med drap hann Sophach Hershøfdingia.

19. Enn sem Þienarar HadadEsers sau, ad þeir voru slegner af Jsrael, þa giordu þeir Frid vid David, og urdu hans Þienarar. Og þeir Syri villdu ecke upp þadan veita lid Ammons Bornum.

## XXI. Capitule.

Davíd Heriar (I) a Ammonita, og (II) a Philistea.

XX. Cap. I. Og þa Aared var umlided, a þeim Tijma sem Konungarner plaga ad fara vt (i hernad) þa færde Joab Strijdsherenn, og fordiarfade Land Ammons Barna, kom og setteſt um Rabba, enn David var j Jerusalem. Og Joab sloo Rabba, og braut hana nidur.

2. Og David took þeirra Kongs koronu af hans Hofde, og fann hana ad vera eitt Centener Gulls þunga, og Gimsteina j henne, og hun var sett a Davids Høfud. Hann flutte og miked Herfoang af Borgenne.

3. Enn Folked, þad sem þar var inne, leidde hann vt, og skipte þvi j sundur med Sogum, og med Jarnkrookum, og Fleygum. So giorde David vid allar Borger Ammons Barna. Og David foor med Folkenu aptur j Jerusalem.

II. 4. Þar epter hoofst eitt Strijd j moote Philisteonum j Gasar. Þann Tijma sloo Sibechai Husathiter Sibai, sem var af Risanna Bornum, og nidurlægde þa.

5. Og þar hoofst upp aptur eitt Strijd a moote Philisteorum. Þa sloo Elhanan, son Jairs, Lahemi, Brodur Goliaths Gathiters, sem hafde eitt Spiot so sem eirn Vefiarrif.

6. Aptur vard Bardage j Gath. Þar var eirn stoor Madur, sem hafde sex Fingur og sex Tær, þad er ad tolu Fiorer og Tuttugu, hann var og so fæddur af Risunum.

7. Og hann hædde ad Jsrael, enn Jonathan, son Simea, Brodur son Davids, sloo hann j Hel.

8. Þesser voru komner af Risonum j Gath, og fiellu fyrer Hende Davids og hans Þienara.

## XXII. Capitule.

Metnadur Davids, þa hann lætur telia Folked, er straffadur af DRottne med Drep-Sott.

XXI. Cap. Og Satan mootstood Jsrael, og skaut David j Hug, ad hann liet telia Jsrael.

2. Og David sagde til Joab, og til Hofdingianna Folksins, Fared og telied Jsrael, fra Berseba og allt til Dan, og færed mier, ad eg vite hvorsu marger þeir eru.

3. Og Joab sagde, DRottinn auke vid sitt Folk, so sem þad nu er, hundradfallt so margt. Enn Minn Herra Kongur, Eru þeir ecke aller mijns Herra Þienarar? Hvar fyrer spyr þa minn Herra þar epter? Þvi skal Skulld koma a Jsrael.

4. Enn Kongsins Ord geingu framm j moot Joab. Og Joab foor af stad, og reiste j gegnum allann Jsrael, og kom til Jerusalem.

5. Og hann fieck David Manntal Folksins,

sins, þess sem taled var. Og allur Jsrael var Ellefusinnum Hundrad Þusund Manns, sem Sverd wtdrogu. Og Juda Fiorum Hundradsinnum og Siotiyge Þusunder Manns, sem Sverd wtdrogu.

6. Enn Levi og BenJamin talde hann ecke med þessum, þviad Joab voru Kongsins Ord andstyggd.

7. Enn þetta misslijkade Gude, og hann sloo Jsrael.

8. Og David sagde til Guds, Eg hefe þunglega syndgast, ad eg giorde slijkt. Enn tak nu burt Misgiorning þijns Þienara, þviad eg hefe giort hardla (a) fæviisslega.

(a) (Fæviisslega) David stundar uppa fænyta Vegsemd, þad hann villde sia hvad kostulega Konga Rijked var af Honum utauked, svo sem af hans tilstille. Þar sier þu, ad Traust uppa verkid er fæfeingeleg Vegsemd a moote Æru Guds, og er ein Afgudadijrdkun.

9. Og DROTTinn talade vid Gad, Davids Siaanda, og sagde,

10. Far þu, Tala vid David og seig, So seiger DROTTinn, Þria hlute legg Eg fyrer þig, kioos þu eirn af þeim sem Eg giore þier.

11. Og þa Gad kom til Davids, sagde hann til hans, So seiger DROTTinn, Kioos þier,

12. Annad hvort þriggia Aara Hallære, eda ad þu flyer þria Maanude fyrer þijnum Fiandmonnum, og fyrer Sverde þinna Ovina, ad þeir grijpe þig, eda DRottins Sverd og Drepsott, j þria Daga j Landenu, ad Eingell DROTTins slae j hel, j øllum Jsraels Landamerkium. So sia nu til, hvoriu eg skal svara þeim sem mig utsende.

13. David sagde til Gad, Miog þreyngest eg, Enn þo vil eg falla j Hond DRottins, þviad hans Miskun er miog mikel, enn ecke vil eg falla j Mannanna Hendur.

14. Þa liet DROTTinn Drepsott koma j Jsrael, so þar fiellu Siotiyge Þusunder Manna af Jsrael.

15. Og Gud sende Eingelenn til Jerusalem, ad slaa hana. Og þa hann var ad slaa leit DROTTinn til, og hann angradest yfer þvi eun Vonda, og sagde til Eingelsins sem sloo (Folked) Þad er noog, þijn Hond late af. Enn Eingell DRottins stod hia Lavagarde Arnans Jebusita.

16. Og David upplypte sijnum Augum, og sa Eingel DROTTins standa a millum Himens og Jardar, og hafde brugded Sverd j sinne Hende, og riette þad yfer Jerusalem. Þa fiell David, og þeir enu Ellstu, klædder (b) Seckium, framm a þeirra Andlit.

(b) (Seckium) Ebreske Textenn kallar Secke, þau Klæde sem eru giörd af storu obreytin Lijne, eda Ullu, so sem þad er sem til Seckia er haft.

17. Og David sagde til Guds, Hvort er eg ei sa sem baud ad telia Folked? Eg er sa sem syndgadest, og giorde þad hid Vonda, Hvad hafa þesser Sauder giort? DRottinn Gud minn, lat þijna Hond vera j giegn mier og mijns Fødurs Hwse, enn ecke j moote þijnu Folke ad plaaga þad.

18. Eingellenn sagde til Gads, ad hann skyllde seigia David, Ad David skyllde ganga upp, og reisa DROTTne eitt Alltare j Lavagarde Arnans Jebusita.

19. Og David gieck upp epter Orde Gads, sem hann sagde til hans j Nafne DROTTins.

20. Enn sem Arnan snerest vid, og sa Eingelenn, og hans fiorer syner med honum, foru þeir ad fela sig, þviad Arnan var ad þreskia Hveite,

21. Enn sem David gieck til Arnan, sa Arnan og vard var vid David, hann gieck ut af Lavagardenum, og laut David, med sijnu Andlite til Jardar.

22. Og David sagde til Arnan, Gief mier Rwm j Lavagardenum, svo eg meige biggia Alltare DROTTne þar a, Fyrer fulla Peninga skalltu giefa mier þad, so ad Plaagunne meige linna af Folkenu.

23. Arnan sagde til Davids, Tak til þijn, og gior, Minn Herra Kongur, hvad þier þocknast.

þockneast. Sioa, Eg gief Uxana til Brenneoffurs, og Okenn til Vidar, og Hveite til Matoffurs, þad gief eg alltsamann,

24. David Kongur sagde til Arnans, Ecke so, Helldur vil eg kaupa þetta fyrer fulla Peninga. Þviad ei vil eg taka þad sem þier tilheyrer fyrer DROttne, og eg vil eige hafa þad giefins til Brennefoornar.

25. So gaf David Arnan fyrer þad Rwom sex Hundrud Sekel Gulls ad vigt,

26. Og David reiste DROTTni þar eitt Alltare, og offrade Brenneoffre og Packlætisoffre. Og sem hann aakallade DROttinn, þa bænheyrde hann hann af Himne fyrer Elldenn, yfer Brenneoffursins Alltare,

27. Og DROttinn sagde til Eingelsins, ad hann skyllde stijnga sijnu Sverde j sijnar Slijdrer.

28. A þeim sama Tijma, þa David saa þad, ad DROTTinn hafde bænheyrt hann, aa þvi Plaatse Arnans Jebusita, þa plagade hann ad færa þar Foorner.

29. Þviad DROTTins Tialldbwd, sem Moses giorde j Eydemørkenne, og þad Brennefoornar Alltared, var j þann Tijma aa Hædenne j Gibeon.

30. Og gat David ecke fared þangad, ad spyria GUD, so var hann hræddur ordenn fyrer Sverde DROTTins Eingels.

XXII. Cap. 1. Og David sagde, Hier skal DROTTins Guds Hwsvera, og þetta Alltared til Brennefoorna Jsraels.

# XXIII. Capitule.

David dregur ad mikel Efne til Biggingar Musteresins i Jerusalem.

Og David baud ad samansafna þeim Utlendingum sem voru j Jsraels Lande, þa skickade hann til Steinhoggvara, til ad hoggva Steina til Guds Hwss Biggingar.

3. Og David liet tilbwa miked Jaarn til Naglanna, til Hurdanna j Portunum, og til alls þess sem negla þurfte, og so mikenn Kopar ad eige vard veigenn.

4. So og Cedrus Trie otelianleg, þviad þeir af Zidon og Tyro færdu David mikenn Cedrus Vid.

5. Þvi David þeinkte, Minn Son Salomon er Barn, og lijtels maattar, enn Hwsed þad sem DROttne a ad biggiast skal vera stoort, so ad hans Nafn, og Dyrd, upphefiest j øllum Londum, þvi vil eg tilbwa þad sem hann þarf. So samansafnade David miklum efnum aadur enn hann andadest.

6. Og hann kallade sinn Son Salomon, og baud honum ad biggia DROTTins Jsraels Guds Hwss.

7. Og sagde til hans, Minn Son, Eg hefe haft j Sinne, ad biggia Nafne Drottins mijns Guds eitt Hwss.

8. Enn DROTTins Ord kom til mijn, og sagde, Þu hefur wthellt miklu Bloode, og vered mikell Bardaga Madur, þar fyrer skalltu ecke biggia mijnu Nafne Hwss, þviad þu hefur wthellt so miklu Bloode a Jordina fyrer mier.

9. Sioa, sa Sonur sem þier skal fædast, hann skal vera kirrlaatur Madur, þvi eg læt hann hviilast fyrer øllum hans Ovinum, allt um kring, þvi hann skal heita (a) Salomon. Þvi eg vil giefa Frid og Roo yfer Jsrael um alla hans Lijfdaga.

(a) Salomon þijdest Fridsamur, edur Fridrijkur.

10. Hann skal biggia mijnu Nafne Hwss. Hann skal vera Minn Sonur, og Eg vil vera hans Fader, og hans Konunglegann Stool vil Eg stadfesta yfer Jsrael æfennlega.

11. So mun nu, Minn Son, DROTTinn vera med þier, og þu munt vera Luckusamur, so ad þu munt biggia DROTTne þijnum Gude eitt Hwss, sem hann hefur talad um þig.

12. DROTTinn mun og so giefa þier Hyggende, og Skilning, og hann mun bifala þier Jsrael, ad þu hallder DROttens Guds þijns Logmaal.

13. Og þa munt þu vera Luckusamur,

nær þu helldur þig til ad giora epter þeim Bodordum og Riettindum, sem DROttinn baud Mose til Israel. Vert hraustur og hugdiarfur, oottast ecke, og vert ohræddur.

14. Sioa þu, eg hefe j minne Foatækt giefed til DROTTins Hwss kostnadar Hundrad Þusund (b) Centener Gulls, og Þusundsinnum Þusund Centener Silfurs, þar med Kopar, og Joarn oan tolu, þvi þad er meir enn miked, eg hefe og ætlad til Steina og Trie, þar moattu vid auka.

(b) (Centener) Er nær eitt Þusund Gyllene, þo einu Ort meira, edur minna. J Grecklande eru þad Sex hundrud Kronur.

15. So og hefur þu marga Arfidara, Steinhoggvara, og Triesmide til Steina, og Tries, og allshoattada Hagleiks Menn a allrahanda Arfide.

16. A Gull, Silfur, Kopar, og Joarn, hvad otelianlegt er. So tak þig nu upp, og fullkomna þetta, DROTTinn mun vera med þier.

17. Og David baud öllum Israelis Hofdingium, ad þeir skylldu hioalpa hans Syne Salomone.

18. Er eige DROTTinn ydar Gud med ydur, og hefur hann eige giefed ydur Roo allt um kring? Þviad hann hefur giefed Landsins Innbyggiara j ydar Hendur, og Landed er unned under DROTTinn, og under hans Folk.

19. So giefed nu ydar Hiortu, og ydar Soaler, til þess, ad þier leited DROTTins ydars Guds. Og taked ydur upp ad biggia Gude DROTTne einn Helgedom, þar jnn meige loata DROTTins Soattmoals Ørk, og Guds Heilogu Kier j Hwsed, hvort ed uppbiggia skal Nafnenu DROTTins.

XXIII. Cap. 1. So sette nu David sinn Son Salomon til Kongs yfer Israel, þa hann var ordenn gamall, og vel alldradur.

## XXIV. Capitule.

David skipar Levita til ad framfilgia Þionustugiordenne i Huse Drottens.

2. Og David samansafnade ollum Hofdingium j Israel, og so Prestonum, og Levitonum.

3. Og hann liet telia Levitana, fra Þrijtugs Alldre, og þar yfer. Og þeirra tala, Hofud fyrer Hofud, var oatian og Tuttugu Þusunder hraustra Manna.

4. Af þeim voru skickadar Fiorar og Tuttugu Þusunder, ad frammkvæma Verked j DROTTins Hwse, og Sex Þusund Embættis Menn, og Domarar.

5. Og Fiorar Þusunder Dyravordslu Manna, og Fiorar Þusunder þeirra sem lofa DROTTinn a Streingia Hlioodfære, sem eg hefe giort, til ad syngia Lof.

6. Og David giorde eina Skickun j millum Levi Barna, sem voru a medal Gerson, Kahath, og Merari.

7. Gersonitar voru Laedan, og Simei,

8. Laedans Born sa Firste, Jehiel, Sethan, og Joel, þeir Þrijr.

9. Enn Born Simei voru, Salomith, Hasiel, og Haran, þeir Þrijr, þesser voru þeir Hofdingiar a medal Fedranna af Laedan.

10. Og þesser voru, og so Born Simei, Jahath, Sina, Jeus, og Bria, þesser Fiorer voru og Simei Born.

11. Og Jahath var sa Firste, Sisa annar. Enn Jeus og Bria oattu ecke morg Born, og þvi voru þeir reiknader fyrer eins Fodurs Hws.

12. Kahaths Born voru, Amram, Jezehar, Hebron, og Usiel, þeir Fiorer.

13. Born Amrams voru, Aaron, og Moses. Og Aaron vard fraskilenn, so ad hann var Helgadur til þess Allra-Helgasta, hann og hans Syner æfennlega, ad bera Reykelse fyrer DROTTenn, ad þiona, og ad blessa j DROTTins Nafne æfennlega.

14. Og Born Mosis Guds Manns voru reiknud j Levitanna Ætt.

15. Og Born Mose voru, Gerson, og Elieser. 16. Born

16. Born Gersons, sa Firste var Sebuel.
17. Born Eliesers, sa Firste var Rehabia. Og Eliesér aatte eingenn ødnur Born. Enn Born Rehabia voru mørg fleyre.
18. Born Jezehar voru, Salomith hinn Firste.
19. Born Hebrons voru, Jeria sa Firste, Amaria Annar, Pridie Jehasiel, Fiorde Jakmeam.
20. Born Usiels voru, hinn Firste Micha, og Annar Jesia.
21. Born Merari voru, Maheli, og Musi. Maheli Born voru, Eleasar, og Kis.
22. Eleasar deyde, og hafde eckert Afkvæme af Sonum til, helldur Dætur, og Born Kis, þeirra Brædur, tooku þær.
23. Born Musi voru, Maheli, Eder, og Jeremoth, þeir þrijr.
24. Þetta eru Born Levi, medal þeirra Fedra Hwss, og þeir yppurstu a medal þeirra Fedra, sem ad reiknader voru, epter Nøfnum, Høfud fyrer Høfud, hvorier ad fromdu Þionustugiordena j DROttins Hwse, fra Tuttugu aarum, og þar yfer.
25. Þvi David sagde, DROTTinn Israels GUD hefur giefed sijnu Folke Hvijld, og þad mun bwa j Jerusalem æfennlega.
26. Og Levitarner þurfa ecke ad bera Tialldbwdena, med ollum hennar Embættis Verkfærum.
27. Og Levi Born voru talenn epter seinustu Davids Ordum, a medal Levitanna, fra Tuttugu aarum, og þar yfer.
28. Ad þeir skylldu standa under Aarons Barna Høndum, til ad þiona DROTTins Hwse, j Gardenum, og ad Kistonum, og til Hreinsunar, og ad allshaattudum Helgedome, ad allre Þionustu giord j Guds Hwse.
29. Ad Skodunar Braudum, ad Similiu Miølenu, ad Matoffrenu, ad Osyrdum Kokum, ad Pønnum, og Ristum, ad ollum Vigtum, og Mælerum.
30. Og ad standa a Morgna, ad þacka, og lofa DROTTinn, og eins a Kvølldenn.
31. Og ad færa DROTTne allar Brennefoorner, a Þvottdøgum, Nymaanudum, og Haatijdum, epter Tølu, og Skickan a allavega fyrer DROTTne.
32. Og ad þeir skylldu hallda vakt hiaa Samkundunnar og Helgedomsins Tialldbwd, og Aarons Born þeirra Brædur, ad þiona j Hwse DROttins.

# XXV. Capitule.

David skipar (I) Høfdingia, og (II) Þionustumenn af Levi Bornum i Helgedomnum.

XXIV. Cap. I. Enn þesse var Skickan Aarons Barna. Aarons Born voru, Nadab, Abihu, Eleasar, og Ithamar.
2. Enn Nadab, og Abihu doou fyrr enn þeirra Fader, og aattu eingenn Born. Enn Eleasar, og Ithamar voru Prestar.
3. Og David skickade þeim so, Zadok af Bornum Eleasars, og Ahimelech af Ithamars Bornum, epter þeirra Tølu, og Embætte.
4. Og þar voru fleyre ypparleger sterker Menn fundner a millum Eleasars Barna, enn a medal Ithamars Barna. Og þa þeir skickudu þeim so, urdu Sextan af Eleasars Bornum til Høfdingia setter j þeirra Fedra Hwse, og aatta af Bornum Ithamars, a medal þeirra Fedra Hwss.
5. Og þeir skickudu þeim epter Hlutfalle, einum a moote ødrum, fyrer þvi, ad hvortveggiu, bæde af Bornum Eleasars, og Ithamars, voru Høfdingiar j Helgedomenum, og ypparster fyrer Gude.
6. Og Semaja Ritare, Son Nethaneel af Levitonum, hann skrifade þa upp fyrer Kongenum, og þeim Yppurstu, og fyrer Prestenum Zadok, og fyrer Ahimelech, Syne AbJathars, og fyrer þeim Yppurstu Fedrum a millum Prestanna, og Levitanna, sem var, eins Fodurs Hws fyrer Eleasar, og þad annad fyrer Ithamar.

7. Enn sa Firste Hlutur fiell yfer Joiarib, sa Annar yfer Jedaia.

8. Pridie yfer Harim, Fiorde yfer Seorim.

9. Fimmte yfer Malchia, Siotte yfer Mejamin.

10. Siounde yfer Hakoz, ꝏttunde yfer Abja.

11. Niunde yfer Jesua, Tijunde yfer Zechania.

12. Sa Ellefte yfer Eliasib, sa Tolfte yfer Jakin.

13. Prettande yfer Hupa, Fiortande yfer Jesebeab.

14. Fimmtande yfer Bilga, Sextande yfer Immer.

15. Seitiande yfer Hesir, ꝏtiande yfer Hapizez.

16. Nitiande yfer Pethahja, Tuttugaste yfer Jehezkel.

17. Firste og Tuttugaste yfer Jachin, Annar og Tuttugaste yfer Gamul.

18. Pridie og Tuttugaste yfer Dleaia, Fiorde og Tuttugaste yfer Maasia.

19. Þetta er þeirra skipan epter þeirra Embætte, ad þeir gange j DROttins Hwꝏs, epter sinne vijsu, under þeirra Fodur Aaron, so sem DROTTinn Gud Israels hafde boded þeim.

II.20. Enn medal Annara Levi Barna var, a medal Amrams Barna, Subael. A medal Barna Subael var Jehdea.

21. Enn a medal Barna Rehabia var Jesia sa Firste.

22. Enn af Jezeharitum var Slomoth, enn a mille Barna Slomoths var Jahath.

23. Born Hebrons voru, Jeria hinn Firste, Amaria sa Annar, Jahesiel sa Pridie, Jakmeam sa Fiorde.

24. Usiels Born voru Micha, enn af Bornum Micha var Samir.

25. Jesia var Broder Micha. Medal Barna Jesia var Sacharia.

26. Merari Born voru, Maheli, og Musi, hvors Son ed var Jaesia.

27. Merari Born af Jaesia, hans Son var Soham, Sacur, og Ibri.

28. Enn Maheli ꝏtte Eleasar, og hans ꝏtte ongva Syne.

29. Af Kis, Kis Born voru Jerahmeel.

30. Born Musi voru Maheli, Eder, og Jeremoth. Þetta eru Born Levitanna j þeirra Fedra Hwꝏsum.

31. Og þeir kostudu Hlutfalle moote Brædrum sijnum Aarons Bornum, fyrer David Konge, og Zadok, og Ahimelech, og fyrer þeim Yppurstu Fedrum a medal Prestanna, og Levitanna, so vel þeim minnsta Broder, sem þeim ypparsta a medal Fedranna.

## XXVI. Capitule.

David skipar Saungvara i Helgedomenum.

XXV. Cap. Og David, ꝏsamt med Herhofdingiunum, fraskilde til Embættanna a medal Barna Assaphs, Heman og Jedithun, þa Spꝏmenn, med Horpur, Psaltara og Cymbalis, og þeir voru talder til Giorningsins, epter sijnu Embætte.

2. A medal Barna Assaphs var Sacur, Joseph, Nethania, Assarela. Assaphs Born, under Assaph sem spꝏde hiꝏ Kongenum.

3. Af Jedithun. Jedithuns Born voru Gedalia, Zori, Jesaia, Hasabia, Mathithia, þesser sex voru under þeirra Fodur Jedithun, med Horpum, sem spꝏdu, ad þacka og lofa DROTTinn.

4. Af Heman. Born Hemans voru, Bukla, Mathania, Usiel, Sebuel, Jeremoth, Hanania, Hanani, Eliatha, Gidalthi, Romamthi, Eser, Jasbekasa, Mallothi, Hothir, og Mahesioth.

5. Þesser aller voru Hemans Born, Kongsins Siꝏanda j Guds Orde, ad upphefia (a) Horned, þviad Gud hafde giefed Heman fiortan Syne og þriar Dætur.

(a) (Þad Horned upp ad hefia) Eg helld, ad þesse Heman hafe vered Davids Spꝏmaun j þeim hlutum sem Rijked ꝏhrærde, hvornenn hann ætte ad stryda og regera, þviad Horn þydest Stiornan og Rijke.

6. Þesser

6. Þesser aller voru under þeirra Fedrum, Assaph, Jedithun, og Heman, ad syngla j DROTTins Hwse, med Cymbalis, Psoltuturum, og Horpum, epter Embættisgiordenne j Hwse Guds hia Kongenum.

7. Og þeirra Tala og þeirra Brædra sem voru Meistarar, og lærdu j Saung DROTTins, voru Tvo Hundrud, aatta og aattatiige.

8. Og þeir køstudu Hlute um þeirra Embætte, so fyrer þa hinu minnstu, sem fyrer þa hina Hellstu, fyrer þa hina Lærdu, lijka sem fyrer Læresveinana.

9. Og hinn firste Hlutur fiell yfer Joseph a medal Assaph: Sa annar yfer Gedalia, og hans Brædur og syne, og þeir voru Tolf.

10. Enn þridie yfer Sacur, og yfer hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

11. Enn fiorde yfer Jezri, og hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

12. Enn fimmte yfer Nethania, og yfer hans syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

13. Enn siotte yfer Bukja, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

14. Enn siounde yfer Jsreela, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

15. Enn aattunde yfer Jesaia, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

16. Enn nijunde yfer Mathania, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

17. Enn tijunde yfer Simei, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

18. Enn ellefte yfer Asareel, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

19. Enn tolfte yfer Hasabia, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

20. Enn þrettande yfer Subael, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

21. Enn fiortande yfer Mathithia, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

22. Enn fimmtande yfer Jeremoth, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

23. Enn sextande yfer Anania, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

24. Enn seitiande yfer Jasbekasa, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

25. Enn aatiande yfer Hanani, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

26. Enn nijtiande yfer Mallothi, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

27. Enn tuttugaste yfer Eliatha, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

28. Enn firste og tuttugaste yfer Hothir, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

29. Enn annar og tuttugaste yfer Gidalthi, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

30. Enn þridie og tuttugaste yfer Mahesioth, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

31. Enn fiorde og tuttugaste yfer Romamthi Eser, hans Syne og Brædur, og þeir voru Tolf.

## XXVII. Capitule.

David skipar (I) Vardhallds Menn vid Musteres Dyrnar; (II) Fiarhallds Menn Musteresins; og (III) Embættes Menn.

XXVI. Cap. 1. Um skipan Dyravordslu Mannanna. A medal þeirra Korhiter, var Meselemia, son Kore, af Bornum Assaphs.

2. Enn Born Meselemia voru þesse, sa Frumgietne, Sacharia, Annar Jediael, þridie Sebadia, fiorde Jathniel.

3. Fimmte Elam, siotte Johanan, og hinn siounde Elioenai.

4. Enn Born ObedEdoms voru þesse, sa Frumgietne, Semaja, annar Josabad, þridie Joah, fiorde Sachar, fimmte Nethaneel.

5. Siotte Ammiel, siounde Jsaschar, aattunde Pegulthai, þvi Gud hafe blessad hann,

6. Og hans son Semaja gat sonu, hvorier ad stioornudu j sinna Fedra Hwse, þvi þeir voru sterker (a) Kappar,

(a) (Kappar) Þvi ad Prestarner urdu ad vera fremst j Briooste Fylkingar j Bardøgum med Trameturnar.

7. So voru þeir nu Semaja Born, Athni, Rephael, Obed, og Elſabad, hvørs Brædur ad voru koſtgiæfner Menn, Elihu og Samachja.

8. Þeſſer aller voru af Bornum ObedEdoms, Og þeir med þeirra Sonum og Brædrum voru kappſamer Menn, velſkickader til Embættanna, voru Tveir og Sextijge af ObedEdom.

9. Meſelemia hafde œarian Born og Brædur, þeir voru kappſamer Menn.

10. Enn Hoſſa, af Bornum Merari, œatte Born, þann ypparſta, Simri, enn þo hann være ecke Frumgietinn, ſaimt giorde Fader hans hann til Hofdingia.

11. Sa annar var Hilkia, þridie Tebalia, fiorde Sacharia. Oll Born Hoſſa og Brædur voru þrettan.

12. Þeſſe er ſkipan a Dyravardhallds Monnunum a medal Kappanna Høfdingia, j Embættenu, hiœ þeirra Brædrum, ad þiona j DROttins Hwſe.

13. Og Hlutkaſtenu var kaſtad ſo vel fyrer þann minnſta, ſem þann ſtærſta, j þeirra Fedra Hwſe, til hvørra Portdyra.

14 Sa Hlutur j moot Auſtre fiell yfer Meſelemia. Þar voru og koſtud Hlutkeſtenn fyrer hans ſon Sacharia, hvør ed var miøg Roadklookur, hønum hlotnadeſt j moot Nordre.

15. Enn ObedEdom moot Sudre, og hans ſonum hiœ Hwſe Eſupim.

16. Og Supim og Hoſſa moot Veſtre, hiœ Porte þvi ſem geinged var upp Brenneoffurſins Stræte, þar Vaktenn ſtood hvør hiœ annare.

17. J moot Auſtre voru ſex af Levitonum. Moot Nordre fiorer um Daga, mote Sudre fiorer um Daga. Enn hiœ Eſupim voru alltijd Tveir og Tveir.

18. Hiœ Parbar moot Veſtre fioorer a Strætenu, og tveir hiœ Parbar.

19. Þeſſe er ſkipan Dyravardveitſlu Mannanna, medal Barna þeirra Korhitá, og Barna Merari.

II. 20. Enn af Levitonum var Ahia (ſettur) yfer Fieſioodu Guds Huſs, og yfer þa Fieſioodu ſem helgader voru.

21. Af Bornum Laedans, Bornum Gerſonita. Af Laedan voru Fedranna Hofdingiar, ſem voru þeir Jehielither.

22. Og Born Jehielitanna voru Sethan, og hans Broder Joel (ſetter) yfer Fieſioodu DROTTins Hwſs.

23. A medal Aramitanna, Jezeharitanna, Hebronitanna, og Uſielitanna,

24. Var Sebuel, ſon Gerſons, ſonar Moſe, Hofdinge yfer Fioarſioodunum.

25. Enn hans Broder Elieſer œatte einn ſon, ſem var Rehabja, hvørs ſon var Jeſaja, hvørs ſon var Joram, hvørs ſon var Sichri, hvørs ſon var Selomith.

26. Sa ſame Selomith, og hans Brædur, voru ſetter yfer allt þad Helga liggianda Fie, ſem Kong David helgade, og þeir yppurſtu Fedur œ medal Høfdingianna yfer Þuſund, og yfer Hundrad, og Hershofdingiarner.

27. Af Strijdenu og Herfœangenu hofdu þeir þad helgad, til þeſs, ad endurbæta DROttins Hwß med.

28. Og allt hvad Samuel Siœande, og Saul, ſon Kis, og Abner, ſon Ner, og Joab, ſon Zeruja, hofdu Heilagt giort, og allt þad ſem helgad var, þad var under Selomith, og hans Brædra Hende.

III. 29. Af Jezeharitum var Chenanja og hans ſyner ſkickader til Þienuſtu utan til yfer Jſrael Embættiſmenn og Domarar.

30. Af Hebronitum, var Haſabja og hans Brædur, Þuſund og Siøhundrud merkeleger Menn, ſkickader til Embætta yfer Jſrael, þeſſumeigenn Jordanar, moot Veſtre, til allshœttadrar DROTTins Þionuſtu, og ad þiona Kongenum.

31. Item, a medal Hebronitanna var Jeria ſoa ypparſte j Hebronita Ætt, og þeirra Fedra. Og a þvi Fertugaſta Aare Davids Kongs, þa var leitad, og fundner koſtgiæfner Menn j Jaeſar j Gilead.

32. Og

32. Og þeirra Brædur, merkeleger, ad tolu Tvo Þusund og sio Hundrud, Fedranna Hofdingiar. Og David sette þa yfer Rubenita, og Gaddita, og hoalfa Manasse Ætt, til allra Erenda Guds og Kongsins.

# XXVIII. Capitule.

Her upteliast (I) Hers-Hofdingiar; II) Hofdingiar Kinþœttanna; (III) Þeir ed voru setter yfer Fiœr-Siodu Davids; (IV) Hans Hellstu Rœdgiafar og Viner.

XXVII. Cap. I. Enn Israels Born, epter þeirra tolu, voru Fedranna Hofdingiar yfer Þusund og Hundrad, og Embættismenn, sem tooku vakt uppa Kongenum, epter þeirra Embætte, j sinne Skipan, ad ganga frœ og til eirn Mœnud, a ollum Mœnudum aarsins, Og hver Skipan hafde Fiorar og Tuttugu Þusunder Manna.

2. Jasabeam, son Sabdiel, var settur yfer þa firstu Skipan j þeim firsta Mœnade, og under hans Skipan voru fiorar og Tuttugu Þusunder Manns.

3. Af Bornum Perez var sa Hofdinge yfer ollum Striids Hofdingium j þeim firsta Mœnade.

4. Dodai Ahohiter var settur yfer Skipan þess Annars Mœnadar, og Mikloth var Hofdinge yfer hans Skipan, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

5. Benaja, Son Jojada Prests, var Hofdinge j Skipan þess Pridia Mœnadar, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

6. Hann er Benaja, sa Kappenn a medal Þriœtiige, og yfer Þriœtiige, og hans Skipan var under hans Syne AmmiSabad.

7. Asael, Broder Joabs, var sa Fiorde j þeim Fiorda Mœnade, og epter hann Sabadia hans Son, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

8. Samehuth Jesrahiter var j þeim Fimmta Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

9. Jra, Son Jkes Thekoita, var Siotte, j þeim Siotta Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

10. Helez Peloniter, af Bornum Ephraims, var sa Siounde, j þeim Siounda Mœnade, og j hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

11. Sibechai Husathiter, af Sarehiturum, var þann œttunde j þeim œttunda Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

12. Abieser Anthothiter, af Bornum Jemini, var þann Nijunde, j þeim Nijunda Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

13. Maherai Nethophathiter, af Seraphitum, var sa Tijunde j þeim Tijunda Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

14. Benaja Pirgathoniter, af Bornum Ephraims, var sa Ellefte j þeim Ellefta Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

15. Heldai Nethophathiter, af Athniel, var sa Tolfte, j þeim Tolfta Mœnade, og under hans Skipan voru Fiorar og Tuttugu Þusunder.

II. 16. Enn þesser voru yfer Israels Ættum, a medal Rubenitanna var Hofdinge Elieser, Son Sichri, a medal Simeonita var Sephatia, Son Maecha.

17. A medal Levitanna var Hasabia, Son Kemuel. A medal Aaronita var Zadok.

18. A medal Juda var Elihu, af Brædrum Davids. A medal Isaschar var Amri, Son Michael.

19. A medal Sebulon var Jesmaja, Son Obadia. A medal Nephthali var Jeremoth, Son Asriel.

20. A medal Barna Ephraims var Hosea, Son Asasia.

21. A mille hoalfrar Manasse Ættar var Joel, Son Pedaja. Og enn a mille hoalf-

var Manasse Ættar j Gilead, var Jeddo, Son Sacharia. A medal BenJamin var Jaesiel, Son Abner.

22. A medal Dan var Asareel, Son Jeroham. Þesser eru Hofdingiar Israelis Ætta.

23. Enn David reiknade þa ecke j Toluna, sem voru Tuttugu cara, og þar fyrer jnnan, þviad DROttinn hafde mællt, ad margfallda Israel so sem Stiornur a Himnum.

24. Enn Joab, Son Zeruja, hafde teked til ad telia, enn fullkomnade þad þo ecke, þviad Reidenn kom yfer Israel þar fyrer, og þvi kom ecke talann j Davids Kongs Chronicu.

III. 25. Asmaveth, Son Adiels, var settur yfer Kongsins Fiehyrdslur. Og Jonathan, Son Ussia, var yfer þeim Fiesiodum, sem voru j Landenu, j Stodonum, j Kauptununum, og Kostolunum.

26. Esri, Son Kelub, var yfer settur Akurverks Mennena, ad eria Landed.

27. Simei Ramathiter var yfer Vijngordonum. Sabdi Siphiniter var yfer Vijnkiollorum, og Vijnsins liggiande Fie.

28. BaalHanan Gaderiter var yfer Vidsmiorsvidar Gordum, og yfer Morbertrianum j Dalnum, Joas var yfer Oliu-Vidsmiors Skatt-Fienu.

29. Sitari Saroniter var yfer Haga Uxum sem geingu j Saron. Enn Saphat, Son Adlai, var yfer Uxonum, sem geingu a laaglendenu.

30. Obil Ismaeliter var yfer Camelonum, enn Jehedia Meronothiter var yfer Osnonum.

31. Jasis Hagariter var yfer Saudonum. Þesser aller voru Hofdingiar yfer Davids Kongs Gotse.

IV. 32. Enn Jonathan, Fodurbroder Davids, hann var Raadgiafe, og Hofmeistare, og Canzeler. Og Jehiel, Son Hachmoni, var hia Bornum Kongsins.

33. Achitophel var og Kongsins Raadgiafe. Husai Arachiter var Kongsins Vinur.

34. Epter Achitophel var Jojada, Son Benaja, og AbJathar. Enn Joab var Kongsins Hershofdinge.

## XXIX. Capitule.

David talar um Bigging Drottins Hus; (I) til Hofdingianna, og (II) til Salomons Sonar sijns.

XXVIII. Cap. I. Og David samankallade til Jerusalem alla þa Ædstu af Israel, sem voru Hofdingiar Kinkvijslanna, og Hofdingiar yfer þær Skipaner, sem þionudu Kongenum, Hofdingiana yfer Þusund, og yfer Hundrad, Hofdingiana yfer Kongsins og hans Sona Gotse, og Fie, med Herbergia Sveinonum, Strijdsmonnonum, og ollum enu bestu Monnum.

2. Og David Kongur stood a sijnar Fætur, og sagde. Heyred mig, mijner Brædur, og mitt Folk. Eg hefe haft j Sinne ad biggia eitt Hws (j hvoriu ad DROttins Sattmaals Ork skyllde hvijlast) og eina Footskor vors Guds, og eg hafde giort mig Reidubuenn til ad biggia.

3. Enn GUD liet seigia mier, Ecke skalltu biggia mijnu Nafne Hws, þviad þu ert Bardagamadur, og hefur wthellt Bloode.

4. Nu hefur DRottinn Israelis GUD wtvaled mig, af ollu Hwse mijns Fodurs, ad eg skylde vera Kongur yfer Israel æfinnlega. Þvi hann wtvalde Juda til Hofdingiadoms, og j Hwse Juda mijns Fodurs Hws, og a medal mijns Fodurs Barna hafde hann þocknan a mier, ad hann sette mig til Kongs yfer allann Israel.

5. Og a medal allra minna Sona, (Þviad DROTTinn hefur giefed mier marga Sonu,) þa hefur hann wtvaled Salomon minn Son, ad hann skule sitia a Kongsrijkis Stolnum DROTTins yfer Israel.

6. Og hann hefur talad til mijn, Þinn Sonur

Sonur Salomon skal mitt Hwꜳs biggia, og Gard, Þviad Eg hefe vtvaled mier hann til Sonar, og Eg vil vera hans Fader.

7. Og hans Kongs Rijke vil Eg stadfesta æfennlega, ef hann er stadfastur, ad hann breite epter mijnum Bodordum, og Rietꜳtindum, so sem a þennann Dag.

8. Nu fyrer ollum Israel, DROTTins Sofnude, og ad oaheyrande Gude vorum, þa hallded og uppspyried oll DROTTins ydars Guds Bodord, so þier meiged eignast þad goda Land, og lꜳta þad ydrum Bornum til Erfdar, epter ydur, æfennlega.

II. 9. Og þu, minn Son Salomon, þeckia skalltu þijns Fodurs GUD, og þiona honum af ollu Hiarta, og med eirnre viliugre Sꜳlu. Þviad DROttinn rannsakar allra Hiortu, og underskendur alla dicktan Þankanna. Ef þu leitar hans, þa muntu finna hann, enn ef þu fyrerlætur hann, þa mun hann burtvarpa þier æfennlega.

10. Siꜳ nu þvi til, þviad DROttinn hefur vtvaled þig, ad þu skuler biggia eitt Hwꜳs til Helgedomsins, Vertu hughraustur, og gior þad.

11. Og David gaf * Salomone sijnum Syne eina Fyrermind, hvornenn smijda skyllde Forhwꜳsed, og hans Hwꜳs, og Herbergenn, og Salenn, og Svefnhwꜳsenn jnnann til, og Nꜳdarstools Hwꜳsed.

* Salomon uppbigger Hused, epter Guds Orde, hvort skied var til hans Fodurs Davids, Sup: 18. So og giefur David honum eitt Munstur, edur Fyrermind, epter hvorre hann skal smijda, þviad eingenn Mannleg Verk, edur Þionusta, af Monnum siꜳlfum upphugsud, og utvalinn, þocknast Gude.

12. Þar med eina Fyrermindan uppa allt þad sem hann hafde hiꜳ siꜳlfum sier j sijnu Sinne, og Þaunkum, sem var, a DROTTinns Hwꜳs Garde, og a ollum Herbergium þar um kring, og a þvi liggiande Fie j Guds Hwꜳse, og a Helgedomsins Kiesioodum.

13. A Prestanna og Levitanna Skipan, og a allre Embættis þionustugiord j DROttins Hwꜳse.

14. Gulled epter Vigt, til Gulls, til allshꜳttadra Kiera j hvoriu Embætte, og allrahanda Silfur Verkfære, epter Vigt, til allrahanda Kiera, til sierhvors Embættis.

15. Og Gull til gullegra Liosastiaka, og til gullegra Lampa, hvor Liosastiake, og hans Lampe sijna Vigt. Hann gaf og so Silfur, til Silfur Liosastikna, og þeirra Lampa, epter hvorrar Liosastiku Embætte.

16. Hann gaf og Gull til Skodunar Braudsins Bords, til hvors Bords sijna Vigt, so og lijka Silfur til Silfurbordanna. Klꜳrt Gull til Krookanna, Munnlauganna, og Kannanna.

17. Og til Gullbikara, hvorium Bikar sijna Vigt, og til Silfur Bikaranna, hvorium Bikar sijna Vigt.

18. Og til Reykelsis Alltaresins þad allra klꜳrasta Gull j sinne Vigt, og eina Mind þess gullega Cherubims Vagns, ad þeir vtbreiddu sig, og huldu Sꜳttmꜳls Orkena DROTTins.

19. Allt þetta var mier giefed, skrifad af Hende DROTTins, ad undervijsa mier allt Verk Fyrermindarinnar.

20. Og David sagde til sijns Sonar Salomons, Vert þu hughraustur, og haf frijmoodugt gied, og gior þetta, ottast ecke, og vert ecke efasamur, GUD DROTTinn, Minn GUD, mun vera med þier, og hann mun ecke taka sijna Hond fra þier, og eige helldur yfergiefa þig, þar til ad þu hefur fullkomnad allann Giorning til Þionustugiordar j DROTTins Hwꜳse.

21. Siꜳ þar, Prestanna og Levitanna Skipaner, til alls Embættes j Guds Hwꜳse, eru med þier, til allra Giorninga, og þeir eru reidubwꜳner, og vijser til allra Embættanna, so og Hofdingiarner og allt Folked til allrar þinnar Hondlunar.

## XXX. Capitule.

David (I) ꜳminner Hofdingiana til Orlætes; (II) Þackar Drottne, og ꜳkallar hann, og (III) Sofnar burt i Honum.

 I. Og

XXIX. Cap. I. Og David Kongur sagde til alls Safnadarins, Gud hefur wtvaled Salomon, einn af mijnum Sonum, sem enn nu er bæde ungur og lijtell, enn Giørningurenn er stor, þviad þetta er ecke eins Manns Heimele, helldur Guds DROTTins.

2. Enn eg hefe af øllu mijnu Megne tillagt til Guds Huss, Gull til gullegra Kiera, Silfur til Silfurkiera, Kopar til Koparkiera, Joarn til Joarnsmijdis, Trie til Triesmijdis, Onyxsteina, greypta Rubinsteina, og mislita Steina, og allra handa dyrmæta Steina, og marga Marmarasteina.

3. Ad auk þessa hef eg giefed, af mijnu eigenn Gotse, (af þvi eg hefe stora Velþocknan a mijns Guds Hwse,) Gull og Silfur til Guds Heilaga Hwss. Auk alls þess sem eg hefe til ætlad.

4. Þriu Þusund Centener Gulls af Ophir, og Sio Þusund Centener klaart Silfur, til ad foodra med Hwssens Vegge.

5. So ad þar sie Gull sem Gull skal vera, þar Silfur sem Silfur skal vera, og til alls hwattads giornings, fyrer Verkmeistaranna Hendur. Og hwør er nu velviliugur til ad fylla sijna Hønd j Dag fyrer DROTTne?

6. Þa voru Fedranna Hofdingiar, og Jsraelis Ættar Høfdingiar, og Hofdingiar yfer Þusund, og yfer Hundrad, og so Hofdingiar yfer Kongsins Bifalningum, velviliuger,

7. Og gaafu til Embættesins, j Guds Hwse, Fimm Þusund Centener Gulls, og Tiju Þusund Gyllene, og Tiju Þusund Centener Silfurs, aatian Þusunder Centener Kopars, og Hundrad Þusund Centener Joarns.

8. Og hia hwørium hellst sem Steinar urdu fundner, þa gaafu þeir þa til Guds DROTTins Fiaarsiooda, under Jehiel Gersoniters Hond.

9. Og Folked var Fagnande, ad þeir voru so sialfviliuger, Þvi þeir gaafu DRottne, af øllu Hiarta sialfviliuger. Og David Kongur gladde sig og so mikelega,

II. 10. Og lofade Gud, og sagde fyrer øllum Almwganum, Lofadur siertu DROTTinn Jsraels, vorra Fedra Gud, æfenlega.

11. * Þier ber Vellded og Magtenn, Dyrdenn, Sigur, og Þackargiørd. Þvi allt þad sem er a Himne og Jordu þad er þitt, Rijked er þitt, og þu ert upphafenn yfer alla til Yferhøfdingia. * Matth. 6, 13. 1 Tim. 1, 17. Opinb. B. 5, 13.

12. Audæfenn og Dyrdenn eru fyrer þier. Þu stioornar yfer alla Hlute, Magt og Stirkur er j þinne Hende, þad stendur j þinne Hende, ad giora sierhvørn Mann mikenn og sterkann.

13. Nu, Vor Gud, vier þøckum þier, og gøfgum þitt Dyrdarennar Nafn,

14. Þvi hvad er eg? Hvad er mitt Folk, ad vier skylldum hafa Magt til velviliuglega ad giefa, sem nu skier? Þviad þad er allt komed af þier, og af þinne Hende høfum vier þad giefid þier.

15. Þviad vier erum Giester og Framande fyrer þier, lijka sem aller vorer Forfedur. Vort Lijf a Jordunne er lijka sem Skugge, og þar er eingenn Dvøl.

16. DROTTinn Vor Gud, øll þesse Gnogt sem vier høfum tilbwed ad biggia þier med eitt Hws, til þijns Heilaga Nafns, þad er komed af þinne Hende, og þad er allt saman þitt.

17. Minn Gud! eg veit ad þu rannsakar øll Hiortu, og elskar Riettvijsena, Þvi hef eg af einu einfølldu Hiarta giefid þier þetta viliuglega, og med Glede hef eg nu sied þitt Folk, þad sem nu er hier, ad þad hefur giefid þier sialfviliuglega.

18. DROTTinn vorra Fedra, Abrahams, Jsaacs, og Jsraels Gud, vardveittu æfinlega soddan Sinne og þancka j Hiarta þijns Folks, og tilreid þu þeirra Hiortu til þijn.

19. Og

19. Og gief mijnum syne Salomone eitt algiort Hiarta, ad hann hallde þijn Bod, þinn Vitnisburd, og þijn Riettinde, ad giora þad allt saman, og ad biggia þetta Hws sem eg hefe tilsett.
20. Og David sagde til alls Almwgans, Lofed DROTTinn ydarn Gud. Og allur Sofnudurenn lofade DROTTinn Gud sinna Fedra, þeir hneigdu sig og tilbœdu DROTTinn, og Konginn.
21. Og þeir færdu DROTTne Foorner. Og ad ødrum Morgne offrudu þeir Brennefoorn, Þusund Uxum, Þusund Saudum, Þusund Lombum, med þeirra Dryckiaroffre, og mørgum Offrum fyrer allann Jsrael.
22. Og œtu og druncku, med storum Fagnade, þann sama Dag fyrer DROttne. Og þeir giordu Salomon, son Davids, til Kongs, j annad sinn, og smurdu hann DROttne til eins Hofdingia, og Zadok til Kiennemanns.
23. So sat Salomon j DROttins Hœgsæte, eirn Kongur j sijns Fodurs stad Davids, og vard Luckusamur.
24. Og allur Jsrael var honum hlydinn. Og aller Hofdingiarner, og þeir enu Volldugustu, og øll Born Davids Kongs gœfu sig under Salomon Kong.
25. Og DROTTinn giorde Salomon meir og meir ypparlegann fyrer ollum Jsrael, og gaf honum eitt leflegt Kongs Rijke, þvilijkt ad eingenn fyrer hann hafde haft j Jsrael.
III. 26. So var nu David, sonur Jsai, Kongur yfer allann Jsrael,
27. Enn sa Tijme sem hann var Kongur yfer Jsrael, er fiorutijge Aar. Hann rijkte sio Aar j Hebron, og þrettan Aar og Tuttugu j Jerusalem,
28. Og andadist j godre Elle saddur af Lijfsdøgum, Rijkdoome og Æru. Og Salomon, hans son, vard Kongur j hans stad,
29. Enn Davids Kongs Giorningar, bæde þeir firstu og sijdurstu, Sia, þeir eru skrifader j Giorningum Samuels Siaanda, og a medal Giorninga Nathans Spaamanns, og a medal Giorninga Gads þess Siaanda,
30. Med øllu hans Kongs Rijke, Magt og Tijmum, sem frammlidu yfer honum, og yfer Jsrael, og øllum Konga Rijkium j Londonum.

Ender aa þeirre Firre Chronicu Bookenne.

# Paralipomenon.

# Su Annur Chronicu Bookenn.

## I. Capitule.

Her verdur nockud sagt (I) um Salomons Vijsdom; og (II) Audæfe.

I. Og Salomon, Son Davids, stirktest j sijnu Rijke, og DRottinn hans Gud var med honum, og miklade hann meir og meir.
2. Og Salomon talade vid allann Jsrael, vid Hofudsmennena yfer Þusund og Hundrad, vid Domendur, og alla Hofdingia j Jsrael, vid þa Ædstu Fedur,
3. Ad þeir fære af stad, Salomon, og allur Mannsøfnuduren med honum, til þeirrar Hœdar sem var j Gibeon, þvi þar var Guds Samkundu Tialldbwd, hvoria Moses Guds Þienare hafde giort j Eydemorku.
4. Þvi David hafde flutt Guds Ork upp fra Kiriath-Jearim, þangad sem hann hafde bwed um hana, þvi hann hafde uppreist eina Tialldbwd til hennar, j Jerusalem.

5. Enn

5. Enn þad Kopar=Alltare sem Bezaleel, son Uri, sonar Hur, giort hafde, þad var þar fyrer Tialldbwd DROTTINS, Og Salomon, og allur Sofnudurenn plagade ad sækia þangad.

6. Og Salomon offrade a þvi Kopar=Alltare fyrer DROttne, sem stood fyrer Samkundu Tialldbwdenne, Þusund Brennefoornum.

7. A þeirre somu Noott birtest Gud Salomone, og sagde til hans, Bid þu, Hvad skal Eg giefa þier?

8. Salomon sagde til Guds, Þu hefur veitt mikla Miskun mijnum Fodur David, og þu hefur sett mig til Kongs j hans stad.

9. So lꝍat nu, DRottinn! þijn Ord sonn verda til mijns Fodurs Davids. Þvi þu hefur sett mig til Kongs yfer einu Folke, sem so margt er lijka sem Dupt a Jordu.

10. So gief mier nu þar fyrer Vitsku og Skilning, so eg kunne ad ganga wt og jnn fyrer þessu Folke. Þvi hvor kann ad dæma þetta þitt hid Mikla Folk?

11. Þa sagde Gud til Salomons, Sokum þess, ad þu hefur þetta j Sinne, og þu badst ecke um Rijkdom, eige helldur um Audæfe, edur Dyrd, edur um Sꝍaler þinna Ovina, edur um langa Lijfdaga, Helldur badst þu um Vitsku og Skilning, so þu meiger dæma mitt Folk, yfer hvort Eg hefe sett þig til eins Kongs.

12. So sie þier giefenn Vitska og Skilningur; Þar til med vil Eg giefa þier Rijkdom, Audæfe, og Dyrd, ad þinn Lijke skal eige vered hafa a medal Konganna fyrer þig, og eige helldur mun vera epter þig.

13. So kom Salomon frꝍa þeirre Hæd sem var j Gibeon, til Jerusalem, frꝍa Samkundu Tialldbwdenne, og rijkte yfer Israel.

II. 14. Og Salomon safnade sier Vognum og Riddꝍrum, so ad hann fieck Þusund og Fiogur Hundrud Vagna, og Tolf Þusund Riddara, og liet þa vera j Vagna=stodonum, og hiꝍa Kongenum j Jerusalem.

15. Og Kongurenn giorde so miked Gull og Silfur j Jerusalem, sem Steina, og Cedrus Vid so sem Morber Trie j Dalnum.

16. Og Salomon Konge fluttust Hestar af Egyptalande, og allshꝍattrud Vara. Og Kongsins Kaupmenn keyptu þessa Voru.

17. Og fluttu hana ut af Egyptalande, Jꝍa, eirn Vagn fyrer Sexhundrud Silfur=Peninga, einn Hest fyrer Hundrad og Fimmtijge. So færdu þeir og til allra Hethiters Konga, og til Konganna j Syria.

# II. Capitule.

Salomon ber umhyggiu fyrer þvi, ad Mustered verde uppbiggt.

Og Salomon ꝍasette sier ad biggia DRottins Nafne eitt Hwꝍs, og sijnu Kongsrijke eitt Hwꝍs.

2. Og hann aftalde Siøtijge Þusund Manna, til ad bera Byrder, ag ꝍattatijge Þusund Triesmida, a Fiallenu, og þriu Þusund og sex Hundrud Tilsioonar Menn yfer þa.

3. Og Salomon sende til Hiram, Kongsins j Tyro, og liet seigia honum, Lijka sem þu giorder vid minn Fodur David, og þu sender honum Cedrus Vidu, ad biggia sier eitt Hwꝍs, j hvoriu hann bio,

4. Sꝍa, eg vil biggia DROTTins mijns Guds Nafne eitt Hwꝍs, hvort ed honum skal helgad verda, ad giora fyrer honum þar j gott Reykverk, og alltijd Skodunar Braudenn ad tilreida, og Brenneoffur a Morgna og Kvolld, a Sabbaths Dogum, a Tunglkomu Hꝍatijdum, og a DROttins Vors Guds Hꝍatijdum æfinlega fyrer Israel.

5. Og þad Hwꝍs, sem eg vil biggia, skal vera stoort, þviad Vor GUd er Stærre enn aller Guder.

6. Enn hvor mun þad megna, ad biggia honum Hwꝍs? Þviad Himenenn og aller Himnanna Himnar taka hann ecke, Hvor em eg þa, ad eg skyllde Honum biggia eitt Hwꝍs? Helldur til þess, ad brenna fyrer honum Reykelse.

7. Þar fyrer send mier nu eirn hyggenn Mann

Mann til ad arfida og Gull, Silfur, Kopar, Jarn, Skarlat, Purpura, gult Silke, og þann sem kann ad wtgrafa, med þeim enu Hogu sem hier eru hia mier j Juda og Jerusalem, hvoria minn Fader David hefur til feinged.

8. Og send mier Cedrus Trie, Grene-Vid og Heben Trie af Libanon. Þvi eg veit ad þijner Þienarar kunna ad hoggva Trie uppa Libanon. Og sioa, mijner Þienarar skulu vera med þijnum Þienurum,

9. Ad þeir kunne ad tilbua mier marga Vidu, þviad pad Hwsid, sem eg vil biggia, skal vera miked og sierlegt.

10. Og sioa, eg vil giefa Triesmidunum þijnum Þienurum, sem ad Trien hoggva, Tuttugu Þusund Coros af knwsudu Hveite, og Tuttugu Þusund Coros Biggs, og Tuttugu Þusund Bath Vijns, og Tuttugu Þusund Bath af Vidsmiore.

11. Þa sagde Hiram, Kongur af Tyro, fyrer Skrift, og sende til Salomons, Fyrer þvi ad DRottenn elskar sitt Folk, þa hefur hann sett þig til Kongs yfer pad.

12. Og Hiram sagde enn framar, Lofadur sie DROTTENN Jsraelis GUD, hvor ed skapad hefur Himenn og Jord, ad hann gaf David Konge einn vijsann, hyggenn og forstandugann Son, hvor biggia skal DRottne eitt Hws, og sijnu Kongs Rijke eitt Hws.

13. So sende eg nu eirn vijsann Mann, hvor ad hefur Forstand, og hefur vered hia mijnum Fodur (a) Hyram.

(a) (Hyram) Sumar Bækur hafa Hyram Abi.

14. Hvor ad er eirnrar Kvinnu Son af Dætrum Dans, og hans Fader var af Tyro. Hann kann smijda Gull, Silfur, Kopar, Jarn, Trie, Skarlat, Gult Silke, Lijn, Purpura, og ad utgrafa allrahanda, og kunstugliga ad giora allt, hvad sem Mann setur honum fyrer, med þijnum Kunstigum, og med þeim Kunstugum Kongs Davids, mijns Herra, þijns Fodurs.

15. So sende nu minn Herra Hveite, Bigg, Vidsmior, og Vijn til sinna Þienara, so sem hann hefur sagt.

16. So vilium vier hoggva Trie a Libanon, so morg sem þorf gioreſt, og vier vilium færa þau a Sioo j Flota til Japho, enn þar fra mættu flytia þau upp til Jerusalem.

17. Og Salomon talde alla framande Menn j Jsraels Lande, epter þeirre tolu sem David hans Fader hafde taled þa, og þar fundust Hundrad og Fimmtijge Þusunder, Þriu Þusund, og Sex Hundrud.

18. Og hann skickade Siotijge Þusund af þeim til ad bera Byrdar, og attatijge Þusund til ad hoggva a Fiallinu, og Þriar Þusunder, og Sex Hundrud sette hann til Verkstiora, ad hallda Folkenu til Þionustu.

## III. Capitule.

Um Bigging Musteresins.

Og Salomon took til ad biggia DROttins Hws j Jerusalem, a Fiallenu (a) Moria, þar sem David hans Fodur var til vijsad, hvort ed David hafde tilbwed til stadar a Arnans Jebusita Plaatse.

(a) (Moria) a þessu Fialle offrade Abraham Syne sijnum Isaac.

2. Hann hoof ad biggia annann Dag j þeim odrum Maanude, a Fiorda aare sijns Rijkes.

3. Og Salomon lagde so Grundvollenn til ad biggia Guds Hws, j firstu Leingdena Sextiju Alna, og Breiddena Tuttugu aalna.

4. Og Forhwsed, framan vid Breiddena a Hwsenu, var Tuttugu aalna langt. Enn Hædenn var Hundrad og Tuttugu aalna, og bio þad innann af klaru Gulle.

5. Enn þad stoora Hws þiliade hann med Grenetrie, og bio þad yfer med þad besta Gull, og giorde þar uppa Palma-Vid, og Kiediu Verk.

6. Og hann sette j Hwsed Gimsteina til Pryde. Og Gulled var Parvaims Gull.

7. Og hann kloo Bitana, og Dyrastoolpana,

pana, Veggena, og Dyrnar med Gull, og hann liet wtskiera Cherubim a Veggiunum.

8. Hann giorde og Hws þess Allra-Helgasta, hvors leingd ed var Tuttugu Alna, epter Hwssens Breidd, þess Vijdd var og Tuttugu alna, og bio þad med þad allra besta Gull, nær Sex Hundrud Centener Gulls.

9. Enn til Saums fieck hann þeim Tuttugu Siklos Gulls ad Vigt, hann sloo og so Salenn med Gull.

10. Hann giorde og j Hwse þess Allra-Helgasta Tvo Cherubim wtskorna, og yfer þakte þa med Gull.

11. Enn Leingdenn Vængianna a Cherubim var Tuttugu alner, so eirn Vængur var Fimm alner, og took ad Hwssveggnum, og sa annar Vængur var Fimm alna, og took ad hinum odrum Cherubs Vængnum.

12. So hafde og sa annar Cherub eirn Væng Fimm alna langann, og took ad Hwssens Vegg, og hans annar Vængur eirnenn Fimm alna langur, og kom vid Vængenn a odrum Cherub.

13. So ad þesser Vænger Cherubims voru wtbreidder Tuttugu alna breidd, og þeir stoodu a sijnar Fætur, og þeirra Andlit sneru jnn j Hwsed.

14. Og hann giorde eitt Fortialld, af Gulu Verke, Skarlate, Purpura, og Lijnverke, og giorde Cherubim þar uppa.

15. Hann giorde og Tvo Stoolpa fyrer Hwsenu, Fimmtan og Tuttugu alna ad Hæd, og Knappa þar ofann a Fimm alna.

16. Hann giorde og Hleckia Verk til Koorsins, og feste þa ofann a Stoolpana, og hann giorde Hundrad Granata Eple, og feste þau a Kediuverked.

17. Og hann uppreiste Stolpana fyrer framan Mustered, þann annann Hægrameigenn, enn þann annann Vinstrameigenn, og kallade þann sem Hægrameigenn var, Jachin, enn þann sem var til Vinstre Handar, Boas.

# IV. Capitule.

Um Jmislegt vidvikiande Musterenu.

Hann giorde og eitt Kopar-Alltare, Tuttugu alna langt og breidt, og Tiju alna hatt.

2. Hann giorde og eitt steypt Haf, Tiju alna vijdt, fra einum Barme til þess annars, allt um kring, og Fimm alna hatt, og ein Mælesnwra Priatijge alna laung kunne ad na yfer um þad allt um kring.

3. Og þar voru Uxa Minder under þvi um kring, og þar voru Tvær Rader med Knappa j kringum Hafed (hvert ed var Tiju alna vijdt) sem voru steypter med þvi.

4. Og þad stood so a Tolf Uxum, so ad Premur var snwed til Nordurs, og Premur til Vesturs, og Premur til Sudurs, og Premur til Austurs, og Hafed ofann a þeim, og allur þeirra aptare Hlutur, snere jnn.

5. Þess þickt var þver-Handar, og Barmurenn var so sem Bikars Barmur, og Blomstur a eirnre Liliu, og j þad gieck Priu Pusund Bath.

6. Og hann giorde Tiju Katla, og sette Fimm af þeim hægrameigenn, og Fimm Vinstrameigenn, ad j þeim skyllde þvo allt þad sem Brennifoornonum tilheyrde, ad þeir dyfdu þvi þar j. Enn Hafed til þess, ad Prestarner skyllду þvo sig þar j.

7. Hann giorde og Tiju Liosa Stikur af Gulle, so sem þær skylldu vera, og sette þær j Mustered, Fimm til Hægre Handar, og Fimm til Vinstre Handar.

8. Hann giorde og Tiju Bord, og sette þau j Mustered, Fimm a Hægre Sijdu, og Fimm a Vinstre Sijdu, og hann giorde Hundrad Munnlaugar af Gulle.

9. Hann giorde og eirn Gard fyrer Prestana, og eitt miked Gangrwm, og Dyr a Gangrwmenu, og yferdroo Dyrnar med Kopar.

10. Og hann sette Hafed a Hægra Horned til Austurs, Sunnan til.

11. Og Hyram giørde Potta, Sleifar, og Munnlaugar. So fullkomnade Hyram Arfided, sem hann smijdade Salomon Konge, til Guds Hwss,

12. Sem var, þeir Tveir Stoolparner med siinum Listum, og Knoppum, ofann a bꝍadum Stoolpunum, og þeir bꝍader snwnu Hlecker, til ad hylia Listernar, ofann a Stoolpunum.

13. Og þau Fiogurhundrud Granata Eple, a þeim bꝍadum snunu Hleckium, Tvær Rader Granata Epla a hvorium Streing, og huldu bꝍadar Listurnar a Knopponum, sem voru ofann a Stoolpunum.

14. Og hann giørde Stoolana, og Katlana a Stoolunum.

15. Og eitt Haf, og Tolf Uxa þar under.

16. Þar til med Potta, Sleifar, Krooka, og øll þeirra Kier giørde hann, og hans Fader Hyram, Salomon Konge, til DRottins Hwss, af klꝍarum Kopar.

17. J Hierade hiꝍ Jordan liet Kongurenn steypa þetta, j þickre Jordu, j millum Succoth og Zaredatha.

18. Og Salomon giørde ofurmorg þesse Kier, so ad Mann kunne ecke ad vita Vigtena a Koparnum.

19. Og Salomon giørde øll Verkfærenn til Guds Hwss, sem var, þad Gull-Alltare, Borded, og Skodunar Braudenn þar uppa.

20. Liosastikurnar, med þeirra Lompum, af klꝍaru Gulle, ad þær skylldu brenna fyrer Koornum, so sem tilheyrde.

21. Og Bloomstrinn a Lomponum, og Liosasoxenn voru af Gulle, þad var alltsaman af þiettu Gulle.

22. Þar med Knijfana, Munnlaugarnar, Skeidernar, og Skꝍalernar, voru af klꝍaru Gulle. Og Innganguren, og hans Hurd innan til, til þess Allra-Helgasta, og Dyrnar a Musteresins Hwse, voru af Gulle. So var allt Arfided fullkomnad, sem ad Salomon giørde a Hwse DROTTins.

# V. Capitule.

Um Vijgslu Musteresins.

Og Salomon bar jnn þangad allt þad sem hans Fader David hafde helgad, sem var Silfur og Gull, og allrahanda Kier, og lagde þad j Fiehyrdslur j Guds Hwse.

2. Þa samankallade Salomon alla enu Ellstu j Jsrael, Hofudsmenn allra Kinkvijsla, Hofdingia Fedranna a medal Jsraels Barna, til Jerusalem, ad þeir skylldu fꝍra upp DROTTins Sꝍattmꝍals Ørk af Davids Stad, þad er Zion.

3. Og aller Jsraels Menn søfnudust saman til Kongsins a Hꝍatijdenne, þad er j þeim Siounda Mꝍanade.

4. Og aller enu Ellstu j Jsrael komu, og Levitarner tooku upp Ørkena,

5. Og bꝍaru hana upp med Samkundu Tialldbwdenne, og þann allann Heilagann umbwnad, sem var j Tialldbwdenne, bꝍaru Prestarner og Levitarner upp med.

6. Enn Salomon Kongur, og allur Jsraelis Søfnudur, samansafnadur til hans fyrer Ørkenne, offrade Saudum og Uxum, so morgum, ad eingenn kunne ad telia eda reikna þad.

7. So var nu DROttins Sꝍattmꝍals Ørk borenn af Prestunum, j sinn stad, jnn j Koorenn Hwssens, j þad Allra-Helgasta, under Vænge Cherubim.

8. So ad Cherubim utbreiddu sijna Vænge yfer Stad Arkarennar, og Cherubim huldu Ørkena, og hennar Steingur ofan-verdt.

9. Enn Steingurnar voru so langar, ad siꝍ mꝍatte a Knappana a þeim fyrer framann Koorenn, Enn utan til sꝍaust þeir ecke. Og hun var þar allt til þessa Dags.

10. Og ecke neitt var j Ørkenne, utan þau Tvo Spiolld, sem Moses liet j hana, j Horeb, þa ad DROTTinn giørde eirn Sꝍattmꝍala vid Jsraels Børn, þa þeir fooru af Egyptalande.

 11. Enn

11. Enn sem Prestarner geingu nu ut af Helgedomenum (þvi aller Prestar, sem nærstadder voru, helgudu sig,

12. Af þvi þeirra Skickan hiellst ecke) og Levitarner med ollum þeim sem voru under Assaph, Heman, Jedithun, þeirra Born og Brædur, skrydder j Lijnklædum, sungu med Cymbalis, Psollturum, og Horpum, og þeir stoodu Austan til hioa Alltarenu, og hundrad og Tuttugu Prestar hioa þeim, sem ad bliesu j Basunur.

13. Og þad var so sem være þad eirn er trometade og synge, so heyrde Mann eina Raust til ad lofa og þacka DROTTne. Og sem Raustenn upphoofst af Basunonum, Cymbalis, og odrum Streingleik, og um Lof DROTTins, þad hann er goodur, og hans Miskun varer æfenlega. Þa vard DRottins Hws uppfyllt af Þoku,

14. So ad Prestarner gaatu ecke staded og þionad, fyrer Þokunne, þviad Dijrd DRottins uppfyllte Guds Hws.

# VI. Capitule.

Bæn Salomons i Musterenu.

Þa sagde Salomon, DROTTinn hefur talad, ad hann villde bwa j Dimmunne.

2. Eg hefe ad vijsu biggt eitt Hws þier til Ibudar, og eitt Sæte þar þu buer ad Eylijfu.

3. Og Kongurenn snere sinne Asionu, og blessade allann Israels Sofnud, þviad allur Israels Sofnudur stood.

4. Og hann sagde, Lofadur sie DRottinn Israels Gud, sem med sijnum Munne hefur talad til mijns Fodurs, og hefur fullkomnad þad med sinne Hende, þar hann sagde;

5. Fra þeim Tijma ad Eg utleidda mitt Folk af Egyptalande hefe Eg ongvann Stad utvaled j ollum Israelis Ættum, til ad biggia eitt Hws; so ad mitt Nafn skyllde þar vera, og Eg hefe ongvann Mann (a) utvaled, ad vera eirn Hofdinge yfer mitt Folk Israel.

(a) (Utvaled) Merk hier, ad aller Hluter hliota ad skie epter Guds Skipan, so ad eingenn setie upp neina Gudsþionustugiord epter sialfs sijns eigenn þankum, þvi Salomon hrosar hier, bæde Stadnum Jerusalem, og so Davids Personu, ad þau sieu bæde af Gude utvalenn.

6. Enn Eg hef utvaled Jerusalem, ad mitt Nafn skal vera þar, og Eg hefe utvaled David, ad hann sie yfer mitt Folk Israel.

7. Og þa minn Fader David hafde nu j Hug, ad biggia DROTTins Guds Israelis Nafne eitt Hus,

8. Þa sagde DROTTinn til mijns Fodurs Davids, Þu giorder vel, ad þu hafder j Sinne ad biggia mijnu Nafne eitt Hws.

9. Enn þo skalltu ecke biggia þad Hws, helldur þinn Sonur, sa ed koma skal af þijnum Lendum, hann skal biggia mijnu Nafne eitt Hws.

10. So hefur nu DRottinn stadfest sijn Ord er hann talade. Þviad eg er komenn j mijns Fodurs Davids stad, og sit uppa Israels Stoole, epter Ordum DRottins, og eg hefe biggt DRottins Israels Guds Nafne eitt Hws.

11. Og eg hefe sett þangad Orkena, j hvorre ad DRottins Saattmaale er, sa hann hefur giort vid Israels Born.

12. Og hann gieck framm fyrer Alltare DRottins, fyrer ollum Israelis Sofnude, og utbreidde sijnar Hendur.

13. Þvi Salomon hafde giort eirn Kopar Ketil, og sette hann a Gangrwmed, fimm alna langann og breidann, og þriggia alna haafann, til hans gieck hann, og fiell nidur a sijn Knie, fyrer ollum Israelis Almuga, og upplypte sijnum Hondum til Himensins,

14. Og sagde, DRottinn Gud Israels! Þar er Eingenn Gud þier lijkur, hvorke a Himne nie Jordu, þu sem helldur Saattmaala og Miskunseme vid þijna Þienara, þa sem ganga fyrer þier af ollu Hiarta.

15. Þu hefur efnt vid þinn Þienara David, minn Fodur, þad þu honum tilsagder. Þu hefur (b) talad þad med þijnum Munne, og

og fullkomnad þad med þinne Hende, so sem þad stendur a þennann Dag.

(b) (Talad) Lát nu, og so þitt Ord vera satt vid Salomon, sem þu Gud hefur talad, til ad ganga j þijnu Logmaale, annars vill þad verda þungt.

16. Nu DRottinn Gud Israels! Hallt vid þinn Þienara, minn Fodur David, þad þu talader vid hann, og sagder, Eige skal þig vanta eirn Mann, fyrer Mier, hvor ed sitia skal a Israels Stoole. Þo so framt, ad þijn Born geyme sijna Vegu, og þeir gange j mijnu Logmaale, lijka sem þu hefur geinged fyrer Mier.

17. Nu DRottinn Gud Israels! Lát þitt Ord verda satt, þad þu talader til Davids þijns Þienara.

18. Þvi meinar þu nockud ad * Gud bwe hia Monnonum a Jordunne? Sia, Himenenn og aller Himnanna Himnar taka þig ei, Hvornenn skyllde þa þetta Hwss, sem eg hefe biggt, þad meiga giora? *Giorn: B.P.7,48.

19. Enn snw þier DRottinn Gud minn! til Bænar þijns Þienara, og til hans Graatbeidne, so ad þu vilier heyra þa Rausst og Bæn sem þinn Þienare giorer fyrer þier.

20. Ad þijn Augu meige vera openn yfer þessu Hwse Dag og Nott, yfer þessum Stad, hvar þu hefur sagt, Ad þu villder setia þitt Nafn, ad þu vilier heyra þa Bæn sem þinn Þienare mun giora j þessum Stad.

21. Þar fyrer heyr nu þijns Þienara og þijns Folks Israels Graatbeidne, sem þeir munu bidia j þessum Stad, og heyr þad af þijnum Heimelis-Stad fraa Himnenum, og nær þu þad heyrer, þa vert þu Miskunsamur.

22. Ef ad nockur Madur syndgast j moot sijnum Naaunga, og oa hann er eirn Eidur lagdur, sem hann skal sveria, og Eidurenn kiemur fyrer þitt Alltare j þetta Hwss,

23. Þa vilier þu heyra hann, af Himnenum, og skicka þijnum Þienara Riett, og ad þu vilier bitala þeim Ogudlega og giefa hans Veg uppa hans Hofud, og riettlæta þann hinn Riettferduga, og giefa honum epter sijnu Riettlæti.

24. Þegar þitt Folk Israel verdur sleiged fyrer sijnum Ovinum, fyrer þad þeir hafa syndgast j moote þier, og þeir snua sier, og medkienna þitt Nafn, bidia og saargræta fyrer þier j þessu Huse.

25. Þa heyr þu þa af Himnenum, og vert þu Naadugur yfer Syndum þijns Folks Israels, og leid þa aptur j Landed, þad þu gafst þeim og þeirra Fedrum.

26. Nær ed Himinenn er tilbyrgdur, so þar rigner ecke, þvi þeir hafa syndgast j moote þier, Og þeir bidia j þessum Stad, og medkienna þitt Nafn, og snua sier fraa sijnum Syndum, epter þad þu hefur lijteæckad þa,

27. Þa heyr þu j Himnenum, og vert naadugur yfer Syndum þinna Þienara og þijns Folks Israel, þegar þu hefur kient þeim þann gooda Vegenn a hvorium ed þeir skulu ganga, og lát rigna a þitt Land, sem þu gafst þijnu Folke til eignar.

28. Nær þar kiemur Hallære j Landed, eda Drepsoott, eda Þurkur, Brune, Eingespretttur, Kaalormar, eda nær þeirra Ovíner setiast um þeirra Borgarhlid j Landenu, eda nockur Plaaga eda Siukdomur.

29. Hvor sem þig bidur þa, og graatbæner, af hvorskins Monnum og a millum alls þijns Folks Israel, ef ad nockur finnur til sinnar Plaagu og Vesælldar, og hann utbreider sijnar Hendur til þessa Huss,

30. Heyr þu þa af Himnenum, af þijnu Heimelis Sæte, og vert naadugur, og gief sierhvorium epter sijnum ollum Veige, so sem þu þecker hans Hiarta vera (þviad þu alleina þecker Hiortu allra Mannanna Barna.)

31. Uppa þad, ad þeir ottest þig, og gange j þijnum Vegum, alla Daga, so leinge sem þeir lifa i þvi Landenu, sem þu hefur giefed vorum Fedrum.

32. Og ef nockur Utlendur, sem ecke er af þijnu Folke Israel, kiemur af fiarlægu

 Lande

Lande sokum þijns Mikla Nafns og Volldugrar Handar, og þess utrietta Arms, og tilbidur a moote þessu Huse,

33. Heyr þu þa af Himnenum, af Sæte þijns Heimelis, og gior allt þad hvar fyrer hann akallar þig. Uppa þad, ad allt Folk a Jordu meige þeckia þitt Nafn, og ottast þig, lijka sem þitt Folk Jsrael, ad þeir meige vita, ad þetta Hus, sem eg hefe biggt, er kallad epter þijnu Nafne.

34. Þegar þitt Folk ut fer j Strijd j moote sijnum Ovinum, a þann Veg sem þu sender þa, og þeir bidia til þijn, a veigenum til þessa Stadar sem þu utvalder, og til þess Huss sem eg biggda þijnu Nafne,

35. Heyr þa Bæner þeirra og grætbeidne, af Himnenum, og hiaalpa þeim til þeirra Riettar.

36. Þa ad þeir syndga j moote þier (þviad* þar er Eingen Manna sem ei syndgast) og þu reidest þeim, og þu giefur þa under þeirra Ovine, so þeir færa þa hertekna j burt, j eitt Land, langt eda skamt j burtu.

*1 Joh. 1, 8. Jac. 3, 2.

37. Og j þvi Lande snua þeir sier j sijnum Hiortum, þar þeir eru fangner, og snuast; og grætbæna þig j þeirra Herleidingar Lande, og seigia, Vier høfum syndgast, misgiort, og vered Ogudleger.

38. Og þeir snua sier til þijn af øllu Hiarta, og af allre Ønd, j þeirra Herleidingar Lande, þar þeir eru j Fangelse halldner, og bidia a moote Veigenum sem liggur til þeirra Lands, sem þu gafst þeirra Fedrum, og til þess Stadar sem þu hefur utvaled, og til þess Huss sem eg hefe biggt þijnu Nafne,

39. Þa heyr þu þeirra Bæn og Saargrætne, j Himenenn, af Sæte þijns Heimelis, og hiaalpa þeim til þeirra Riettar, og vert þijnu Folke naadugur, sem ad syndgast hefur jmoote þier.

40. So lát nu, Minn GUD! þijn Augu vera openn, og lát þijn Eyru giefa giætur ad þeim Bænum, sem skie j þessum Stad.

41. Og nu DROttinn GUD! Tak þig upp, til þinnar Hvijldar, þu og Ørk þijns Styrkleika. DROTTinn GUD, lát þijna Presta vera j-skrydda Hiaalprædenu, og lát þijna Heilogu gledia sig j þvi enu Gooda.

42. DROttinn Gud! Snu þu eige þijnu Andlite fra þijnum Smurda, minnstu Miskunar þeirrar, sem þu lofader David þijnum Þienara.

# VII. Capitule.

Vijgslu Musteresins fullgiørest (I) med Fornfæringum; (II) Med Lauf-Skaala Haatijdenne; (III) Med þvi, ad GUd birter sig Salomoni aNyattar þele.

I. Enn sem Salomon hafde endad sijna Bæn fiell Elldur ofann af Himnum, og brennde upp Brenneoffred, og þær adrar Foorner. Og DROTTinns Dyrd uppfyllte Hwsed.

2. Og Prestarner gaatu ecke geinged jnn j Hws DROTTins, so leinge sem DRottins Dyrd uppfyllte DROttins Hws.

3. Og oll Jsraelis Born saau Elldinn ofann falla, og DROTTins Dyrd yfer Hwsed, og þeir fiellu a sijn Knie, med sijna Asionu til Jardar, framm a Steingolfed, og baadust fyrer, og þockudu DROTTni, þviad hann er Godur, og hans Miskunsemd varer Eylijflega.

4. Enn Kongurenn og allt Folked færde Forner fyrer DRottne,

5. Þvi Salomon Kongur foornfærde Tvo og Tuttugu Þusund Uxa, og Hundrad og Tuttugu Þusund Saude, og vijgdu so Guds Hws, bæde Kongur og allt Folked.

6. Enn Prestarner stoodu j sijnu Vardhallde, og Levitarner med DROTTins Hlioodfærum, sem David Kongur liet giora, til ad þacka DROTTne med, ad hans Miskunseme varer eylijflega, med Davids Psalmum fyrer þeirra Hønd, og Prestarner bliesu j Basunurnar a moote þeim, enn allur Jsrael stood.

7. Og Salomon helgade Midgardenn, sem var fyrer DROTTins Hwse, þvi hann hafde þar

de þar fullkomnad Brennefoornena, og Packlæteſins Offurs Feitleika, ſokum þeſs, ad þad Kopar-Alltare, ſem Salomon liet giora, var ecke ſo ſtoort ad þad tæke allar Brennefoorner, Matarfoorner, og Feitleika.

II. 8. Og a þeſſum ſama Tijma, hiellt Salomon eina Hœatijd upp j Sio Daga, og allur Iſrael med honum, einn miøg mikell Sœfnudur, fra Hemath, og til Egypti Lækiar.

9. Og a þeim œattunda Deige hiellt hann eina Samkomu, þviad Alltareſins Vijgſlu hiellдu þeir j Sio Daga, og Hœatijdena og ſo j Sio Daga.

10. Enn a þeim Pridia og Tuttugaſta Dege j þeim Siounda Mœanade liet hann Folked fara til ſinna Heimela, med Glede, og Fagnade yfer ollu þvi enu gooda, ſem DROTTinn hafde veitt David, og Salomone, og ſijnu Folke Iſrael.

11. So fullkomnade Salomon, DRottins Hwſ, og Kongſins Hwſ, og allt þad, ſem hann hafde j Hiarta ad giora, j DROTTins Hwſe, og j ſijnu Hwſe, Luckuſamlega.

III. 12. Og DROTTinn birteſt Salomone um Nott, og ſagde til hans, Eg hefe heyrt þijna Bæn, og hef wtvaled mier þennann Stad, til eins Fornfæringar Hwſs,

13. Sioa, Nær Eg byrge Himenenn ſo þar rigner ecke, eda Eg byd Eingeſprettum upp ad eta Landed, eda Eg læt koma Drepſoott a medal mijns Folks,

14. So ad mitt Folk audmyke ſig, hvort kallad er epter mijnu Nafne, og þeir bidia, og leita mijns Andlits, og ſnwa ſier fra ſijnum Vondum Vegum, þa vil Eg heyra af Himnenum, og fyrergiefa þeim þeirra Syndir, og lækna þeirra Land.

15. So ſkulu nu mijn Augu vera openn, og mijn Eyru ſkulu giæta ad Bænum j þeſſum Stad.

16. So hefe Eg nu wtvaled þetta Hwſ, og þad Heilagt giort, ad mitt Nafn ſkal vera þar æfennlega, og mijn Augu, og mitt Hiarta ſkulu alltijd vera þar.

17. Og ef þu geingur fyrer mier ſo ſem þinn Fader David gieck, ſo ad þu giorer allt þad ſem Eg befala þier, og helldur mijn Bodord, og Riettinde,

18. Pa vil Eg ſtadfeſta þinn Konunglegann Stool, lijka ſem Eg hefe Saattmœalabunded mig, vid þinn Fodur David, og ſagt, Þig ſkal ecke vanta eirn Mann, hvor ed ſie Hœfdinge yfer Iſrael.

19. Enn ef þier umſnwed ydur, og yfergiefed mijn Riettinde, og Bodord, ſem Eg hefe lagt fyrer ydur, og þier fared burt, og þioned ødrum Gudum, og tilbidied þa,

20. Pa ſkal Eg uppræta þa af mijnu Lande, ſem Eg hefe giefed þeim. Og þetta Hwſ, ſem Eg hefe Helgad mijnu Nafne, þvi ſkal Eg burtkaſta fra mijnu Andlite, ad þad verde ad Ordſkvid, og Dæmeſøgu, a medal allra Pioda.

21. Og fyrer þeſſu Hwſe, ſem er orded þad Hærſta, munu aller œttaſt, ſem þar ganga framm hia, og ſeigia, Pvi hefur Drottenn fared ſo med þetta Land, og med þetta Hwſ?

22. Pa mun ſvarad verda, Fyrer þvi, ad þeir hafa yfergiefed DROTTinn þeirra Fedra GUD, þann ſem þa leidde af Egyptalande, og hafa giefed ſig til annarlegra Guda, og tilbedid, og þionad þeim, þar fyrer hefur hann leidt alla þeſſa Olucku yfer þa.

## VIII. Capitule.

Salomon (I) lætur byggyrda nockrar Borger; (II) Giører ſier Heidingiana Þegnſkyllda; (III) Færer Forner; (IV) Ber Umhyggiu fyrer Gudsþionuſtugiørd; (V) Giører Skip ut til Ophir.

I. Og epter þau Tuttugu œar, a hvorium Salomon biggde DROTTINS Hwſ, og ſitt Hwſ,

2. Pa biggde hann og ſo þær Borger, ſem Hiram gaf Salomone, og liet Iſraels Børn bwa j þeim.

3. Og Salomon foor til HemathZoba, og eflde hana.

4. Og hann biggde Thadmor j Eydemerkenne, og alla Kornstadena, sem hann biggde j Hemath.

5. Hann biggde og þa hina Efre og Nedre BethHoron, ad þad voru sterkar Borger, med Muorveggium, Portum, og Grindum.

6. Og Baelath, og alla Kornstade, sem hann hafde, og alla Vagnstade, og þa RiddaraStade, og allt þad, sem Salomon hafde Lyst til ad biggia, bæde j Jerusalem, og uppa Libanon, og j ollu Lande siins Herradoms.

II. 7. Allt þad Folk, sem epter var orded af þeim Hethitum, Amoritum, Pheresitum, Hevitum, og Jebusitum, sem ecke var af Jsraels Bornum,

8. Og þeirra Born, sem þeir hofdu laated epter sig j Landenu, hvoria Jsraelis Born hofdu ecke eydelagt, þessa giorde Salomon sier Skattgillda, inn til þessa Dags.

9. Enn Salomon liet ongvann af Jsraels Bornum þiona til hans Arfidis, helldur voru þeir Striidsmenn, og Hofdingiar yfer hans Riddorum.

10. Og þeir yppurstu Valldsmenn Salomons Kongs, sem stiornudu yfer Folked, voru ad Tolu Tvo Hundrud, og Fimmtiige.

11. Og Salomon liet sækia Dottur Pharaonis fra Davids Borg, j þad Hws, sem hann hafde biggt henne, þvi hann sagde, Miin Kvinna skal ecke bwa j Davids Jsraels Kongs Hwse, þvi þad er helgad, sirst ad Ork DROTTins er þar jnnkomenn.

III. 12. Epter þad offrade Salomon Drottne Brennefoornum yfer DROTTins Alltare, þad hann hafde biggt fyrer framann Forhwsed.

13. Hvort Offur a siinum Deige, epter Moses Bode, a Þvottdogum, oa Ny-Maanudum, og a tilsettum Tiimum, Þriar reisur um aared, sem var a þeirre Osyrdu Braud Hatiidenne, a Viku Hatiidenne, og a Lauf-skaala Hatiidenne.

IV. 14. Og hann sette Prestana j þeirra Skipan, til þeirra Embættis, so sem hans Fader David hafde tilsett, og Levitana j þeirra Vardhalld, ad lofa, og þiona fyrer Kiennemonnonum, epter þvi sem daglega þurfte, og Dyraverdena j sinne Skipan, hvorn j siinu Porte, þviad David Guds Madur hafde so bifalad.

15. Og þeir viku ecke fra neinu Bode Kongsins, sem hann giorde um Prestana, Levitana, j allrahanda Maalefnum, og um Fiesioduna.

16. So var tilbued allt Verk Salomonis, fra þeim Deige, sem Grundvollurenn var lagdur til DROTTins Huss, og þar til hann hafde fullkomnad þad, ad DROTTins Hus var med ollu bued.

V. 17. Sidan foor Salomon til EzeonGeber, og til Eloth vid Sioafarsioruna j Landenu Edomea.

18. Og Hiram sende honum Skip med siinum Þienorum, hvorier ed voru Farmenn mikler, og þeir fooru med Salomons Þienurum til Ophir, og fluttu þadann Fiogur Hundrud og Fimmtiige Centener Gulls, og færdu þad til Salomons Kongs.

## IX. Capitule.

(I) Um Salomons Viisdom (II) Riikdom, og (III) Dauda.

I. Þegar Drottingenn af Riike Arabia heyrde Rikte Salomonis þa kom hun med miklu Foruneyte til Jerusalem, med Ulfolldum, sem baaru Jurter, og miked Gull, og Gimsteina, ad reyna Salomon med Diupum Spurningum. Enn sem hun kom til Salomons talade hun vid hann allt þad hun hafde ætlad sier.

2. Og Kongurenn sagde henne allt þad hun spurde ad, og þar var eckert huled fyrer Salomone, ad hann segde henne þad eige.

3. Og sem Drottningenn af Arabia Riike saa Speke Salomonis, og þad Hus, sem hann hafde biggt,

4. Vister

4. Vister a hans Borde, og Herberge hans Sveina, hans Pionustumanna Embætte, og þeirra Klædnad, hans Skeinkiara, og þeirra Klædnad, og hans Sal, þar sem upp var geinged til DROTTins Huss, þa gat hun ecke leingur hallded sier.

5. Og hun sagde til Kongsins, Satt er þad sem eg hefe heyrt j mijnu Lande, um þitt Frammferde, og um þinn Vijsdom.

6. Enn eg villda ecke trua þeirra Ordum, fyrr enn ad eg kom, og hefe sied þad med mijnum Augum. Og sioa, mier hefur ecke vered helmingur sagdur af þijnum mikla Vijsdome, hann er meire med þier, helldur enn þad Rikte sem eg hefe heyrt.

7. Sæler eru þijner Menn, og sæler eru þesser þijner Pienarar, sem ætijd standa framme fyrer þier, og heyra þinn Vijsdom.

8. DROTTinn þinn GUD sie lofadur, hvor ad elskar þig, og hefur sett þig j sitt Hoasæte til Kongs, DRottne þijnum Gude. Þad giorer þad, ad þinn GUD elskar Israel, ad hann upphefie hann æfinnlega, þar fyrer sette hann þig til Kongs yfer þa, ad þu skallt fremia Dom, og Riettinde.

9. Og hun gaf Kongenum Hundrad og Tuttugu Centener Gulls, og miog miklar kostulegar Jurter, og dyrmæta Steina. Þar voru ongvar Jurter þvilijkar sem þessar, hvoriar Drottningenn af Rijke Arabia gaf Salomon Konge.

10. So og Pienarar Hiram, og þeir Sveinar Salomonis, þeir fluttu Gull af Ophir, þeir fluttu og so Hebentrie, og dijrmæta Steina.

11. Og Salomon liet giora Troppur af þessu Hebentrie, j Huse DROTTins, og j Kongsins Huse, so og Horpur, og Psalltara, til Saungvaranna, soddan Vidur hafde ecke fyrr sien vered j Landenu Juda.

12. Og Salomon Kongur gaf Drottningunne af Rijke Arabia allt þad hana gyrnte, og hun badst epter, fyrer utann þad sem hun hafde fært Kongenum. Og hun snere aptur, og foor heim j sitt Land, med sijnum Pienurum.

II. 13. Enn þad Gull, sem Salomone var fært aarlega, var Sex Hundrud Sextijge, og Sex Centener.

14. Ad auk þess sem Kramarar og Kaupmenn færdu honum. Og aller Kongar af Arabia, og Herrarner j Landenu, færdu bæde Gull og Silfur til Salomons.

15. Þar af giorde Kong Salomon Tvo Hundrud Skiolldu, af þvi besta Gulle, so ad Sex Hundrud Sticke Gulls fooru til hvors Skialldar.

16. Og Priu Hundrud Buklara af þvi besta Gulle, og til hvors eins Buklara foru Priu Hundrud Sticke Gulls. Og Kongurenn liet þa j þad Hwss af Libanus Skoge.

17. Og Kongurenn liet giora storann Stool af Filabeinum, og bio hann med skiært Gull.

18. Og Stoollenn hafde Sex Troppur, og eirn Fotstall af Gulle upp vid Stoolenn, og hann hafde Tvær Brijkur a baadar Sijdur vid Sæted, og þar stoodu Tvo Leon hia Brijkunum.

19. Og Tolf Leon stoodu a þeim Sex Troppum, a baadar Sijdur, þvilijkt nockurt er alldrei giort j nockru Kongarijke.

20. Og oll Salomons Kongs Dryckiar Kier voru af Gulle, og oll Kierenn i Libanus Skogs Hwse voru af skiæru Gulle. Þvi ei þotte Silfur nockurs verdt a Dogum Salomonis.

21. Þviad Kongsins Skip sigldu yfer Hafed, med Pienorum Hiram, og komu eitt Sinn j þremur aarum, og fluttu Gull, Silfur, Filsbein, Apiniur, og Poafugla.

22. So var nu Salomon Kongur meire enn aller adrer Kongar a Jordunne, af Audæfum, og Speke.

23. Og aller Kongar a Jordunne gyrntust ad sioa Salomonis Andlit, og ad heyra hans Speke, hvoria GUD hafde honum giefed j hans Hiarta.

24. Og sierhvor þeirra færde honum Skeinkingar, Silfurkier, og Gullkier, Klæde, Briniur, Jurter, Hesta, og Mwla, arlega.

25. Og Salomon hafde Fiogur Þusund Vagnhesta, og Tolf Þusund Riddara, og þa settu Menn j Vagnborgernar, og hiaa Kongenum j Jerusalem.

26. Og hann var eirn Herra yfer øllum Kongum, fra Vatnenu, og allt til Philistea Lands, og jnn til Egyptarauna Landamerkia.

27. Og Kongurenn giørde so mikla Gnogt a Silfre j Jerusalem, sem a Griote, og af Cedrus Trie so mikeð sem Morbertrie j Dalnum.

28. Og honum fluttust Hestar af Egyptalande, og af øllum Løndum.

III. 29. Enn þad sem meira er ad seigia um Salomon, bæde hans ed Firsta, og hid Siðarsta, Sioa, þad er skrifad j Nathans Spaamanns Chroniku, og j Spaadome Ahia af Silo, og j Sionum Jeddi þess Siaaanda, moot Jeroboam, Syne Nebat.

30. Og Salomon rijkte j Jerusalem yfer allann Jsrael j Fiorutijge aar.

31. Og Salomon sofnade med sijnum Fedrum, og þeir jordudu hann j Borg Davids sijns Fødurs. Og Roboam hans Son vard Kongur j hans Stad.

## X. Capitule.

(I) Roboam filger Raadum þeirra Ungu, og (II) misser Tiju Kinþætte.

I. Roboam foor til Sichem, þviad allur Jsrael var komenn til Sichem, ad taka hann til Kongs.

2. Enn sem Jeroboam, Son Nebat, sem var j Egyptalande, heyrde þad, (hvort hann hafde flwed fyrer Kong Salomone) þa kom hann aptur af Egyptalande.

3. Og þeir sendu þangad, og lietu kalla hann. Og Jeroboam kom med øllum Jsrael, og toludu vid Roboam, og søgdu.

4. Þinn Fader giørde vort Ok ofhardt, so gior þu nu þa hordu Þionustu þijns Fødurs liettare, og þad þunga Ok, sem hann lagde a oss, þa vilium vier vera þier undergiefner.

5. Og hann sagde til þeirra, Epter Þria Daga komed aptur til mijn. Og Folked gieck j burt.

6. Enn Roboam Kongur raadgadest um vid þa Olldunga, sem stoded høfdu fyrer hans Fødur Salomone, a medan hann lifde, og sagde, Hvada Raad giefed þier, hvort Svar eg skule giefa þessu Folke?

7. Þeir toludu vid hann og søgdu, Vilier þu vera vingiarnlegur vid þetta Folk, og høndla vinsamlega vid þa, og giefa þeim good Ord, þa verda þeir alltijd þier undergiefner.

8. Enn hann yfergaf Olldunganna Raad, sem þeir gaafu honum, og raadgadest um vid þa Æsku-Menn, sem upphøfdu vared med honum, og stoodu fyrer honum.

9. Og sagde til þeirra, Hvad raadlegged þier, ad vier skulum svara þessu Folke, sem talade vid mig, og sagde, Gior þad Ok liettara sem þinn Fader lagde a oss?

10. Enn þeir Æsku-Menn, sem upp voru vaxner med honum, toludu vid hann, og søgdu, So skalltu seigia til Folksins, sem talad hefur vid þig, og sagt, Þinn Fader giørde vort Ok ofþungt, gior þu vort Ok liettara, og seig þu til þeirra, Minn hinn minnste Fingur skal vera þickre enn mijns Fødurs Lendar.

11. Hafe nu minn Fader lagt ofþungt Ok a ydur, þa skal eg giøra ydar Ok enn meira, minn Fader agade ydur med Svipum, enn eg med Høggormum.

12. Nu sem Jeroboam kom aptur, og allt Folked, a þeim þridia Deige, til Roboams, epter þvi sem Kongurenn hafde sagt, Komed aptur til mijn a þeim Þridia Deige,

13. Þa svarade Kongurenn þeim hardlega. Og Roboam Kongur yfergaf Olldunganna Raad.

14. Og

14. Og talade vid þa so sem þeir Ælkumenn rꜳdløgdu, og sagde, Hafe minn Fader giørt ydart Ok ofþungt, þa vil eg leggia þar enn meira til, Minn Fader agade ydur med Svipum, enn eg med Høggormum.

15. Og Kongurenn hlydde ecke Folkenu, þviad þad var so tilsett af Gude, uppa þad, ad DROTTinn villde stadfesta sitt Ord, þad hann talade fyrer Ahia af Silo, til Jeroboam, Sonar Nebats.

II. 16. Og sem allur Israel sꜳ, ad Kongurenn villde ecke hlyda þeim, þa svarade Folked Kongenum, og sagde, Hvada hlutskipte eigum vier j David, eda Arf j Syne Isai? Fare hvør Madur af Israel til sinna Heimkinna, So siꜳ þu nu fyrer þijnu Hwse David! Og allur Israel gieck til sijns Heimelis.

17. Og Roboam rijkte alleina yfer Israels Børnum, þeim sem bió j Juda Stødum.

18. Og Roboam Kongur wtsende sinn Skatta-Hofdingia Hadoram, enn Israels Børn gryttu hann jhel. Og Roboam Kongur stie med Flyte a sinn Vagn, og flwde til Jerusalem.

19 So fiell Israel fra Davids Hwse, allt til þessa Dags.

# XI. Capitule.

Roboam (I) slepper sijnum ꜳsetninge ad heria a Israel, en (II) herꜳyrder Borger, og (III) setur Syne sijna fyrer Høfdingia i þeim.

I. 1. Enn þa Roboam kom til Jerusalem, þa safnade hann samann Hwse Juda, og BenJamin, Hundrad og ꜳttatijge Þusundum ungra, og hraustra Strijdsmanna, ad beriast vid Israel, ad vinna Rijked aptur under Roboam.

2. Enn DROttins Ord kom til Semaie, Guds Manns, og sagde,

3. Seig þu til Roboams, Sonar Salomons, Kongsins j Juda, og til alls Israels, sem er j Juda, og BenJamin, og seig,

4. So seiger DROTTinn, Eige skulud þier ferdast upp þangad, og eige helldur beriast jmoote ydrum Brædrum, Fare hvør heim aptur, þviad þetta er skied af mier. Þeir hlyddu Orde DROTTins, og lietu af þeirre Herfor imoote Jeroboam.

II. 5. Og Roboam bio j Jerusalem, og biggde þa Stade fasta j Juda.

6. Sem var, Bethlehem, Etam, Thekoa.

7. Bethzur, Socho, Adullam.

8. Gath, Maresa, Siph.

9. Adoraim, Lachis, Asekah,

10. Zarega, Ajalon, og Hebron, þessar voru enu sterkustu Borger j Juda og BenJamin.

11. Og hann giørde þær sterkar, og sette Hofdingia j þær, og Nægter af Vistum, Vidsmiore, og Vijne.

12. Og hann tilskickade Skiølldu, og Spiot, j allar Borger, og giørde þær rammbiggdar. Og Juda og BenJamin voru under honum.

13. Enn Prestarner, og Levitarner komu til hans af øllum Israel, og af øllum þeirra Landamerkium.

14. Og þeir ofurgꜳfu sijna Forstade, og sijnar Eigner, og komu j Juda til Jerusalem, þviad Jeroboam, og hans Syner, wtrymdu þa, so ad þeir mꜳttu ecke fremia DROTTins Presta Embætte,

15. Enn hann took sier Presta til þeirra Hæda, og til þeirra Land-Diofla, og Kꜳlfa, sem hann liet giora.

16. Og marger komu epter þeim, af øllum Israelis Ættum, hvørra Hiortu jnnugꜳfu þeim ad leita DROTTins Israels Guds, j Jerusalem, og ad offra til DRottins þeirra Fedra Guds.

17. Og þeir efldu so Kongsrijke Juda, og stadfestu Roboam, Son Salomons, j Þriu ꜳr. Þviad þeir geingu a Veige Davids, og Salomons, j Þriu Ar.

III. 18. Og Roboam tok sier Eiginnkvinnu,

Mahelath, Dottur Jerimoth, Sonar Da=vids, og Abihail, Dottur Eliabs, Sonar Isai,

19. Hun fædde honum þessa Sonu, Jeus, Semaria, og Saham.

20. Epter þad tok hann Maecha, Dotter Absalons, hun fædde honum, Abia, Athai, Sisa, og Selomith.

21. Enn Roboam hafde Maecha, Dottur Absalons, castkiærare helldur enn allar adrar sijnar Eigennkonur og Frillur, þvi hann hafde catian Eiginnkvinnur, og Sextiju Frillur, og hann gat catta og Tuttugu Sonu, og Sextiju Dætur.

22. Og Roboam sette Abia, son Maecha, til eins Hofuds og Hofdingia a medal hans Brædra, þvi hann ætlade sier ad setia hann til Kongs.

23. Og hann giorde vijslega, og utskipte af øllum sijnum sonum j Land Juda og Ben Jamins, j alla fasta Stade, og hann gaf þeim ofurmiklar Vister, og took fiollda Eigennkvenna.

# XII. Capitule.

Roboam (I) verdur ad þola Hernad af Sisak, og (II) deyr.

I. Enn nu sem Kongsrijke Roboams stadfestest og efldest, þa yfergaf hann DROTTins Løgmaal, og allur Israel med honum.

2. Enn a þvi Fimmta Aare Roboams Kongs, þa foor Sisak, Kongurenn af Egyptalande, upp j moote Jerusalem, (þviad þeir hofdu misgiort vid DROTTinn.)

3. Med Þusund og Tvo Hundrud Vagna, og med Sextiju Þusund Riddara, enn þad Folk sem kom med honum af Egyptalande, Libya, Suchim, og af Morlande, var oteliantegt.

4. Og hann yfervann þær sterku Borgernar sem voru j Juda, og kom jnn til Jerusalem.

5. Þa kom Semaia Spaamadur til Roboam, og til Hofdingianna j Juda, hvorier saman hofdu safnast j Jerusalem, fyrer Sisaks saker, og sagde til þeirra, So seiger DROTTinn, Þier hafed yfergiefed mig, þar fyrer hef eg og yfergiefed ydur j Hendur Sisaks.

6. Þa audmyktu Israels Hofdingiar sig med Kongenum, og søgdu, DROTTinn er Riettlaatur.

7. Og sem DROTTinn saa þad, ad þeir audmyktu sig, þa kom Ord DROTTins til Semaia, og sagde, Þeir hafa audmykt sig, þvi vil Eg ecke fordiarfa þa, helldur vil Eg veita þeim nockra litla Hiaalp, so ad mijn Reide skal ecke driupa yfer Jerusalem, fyrer Sisak.

8. Þo skulu þeir vera honum undergiefner, So ad þeir þecke hvad þad er ad þiona mier, og ad þiona Kongarijkium j Løndunum.

9. So foor nu Sisak Egypta Kongur upp til Jerusalem, og took burt Fiesioodina, sem ad voru j Huse DROTTins,* og þad liggiande Fie j Kongsins Huse, og took þad allt j burtu. Hann took og þa Gullskiolldu sem Salomon hafde laated giora.

* Musterid (var) rænt þa þad hafde ecke utann 41. Aar staded.

10. J hvorra stad ad Kong Roboam liet giora Koparskiolldu, og bijfalade þa Hofdingiunum Hirdmannanna, hvorier ad tooku vara uppa Kongsins Husdyrum,

11. Og so opt sem Kongurenn gieck j DROTTins Hus komu Hirdmennerner og baaru þa, og lietu þa aptur j Hirdmanna Herberged.

12. Og a medan hann audmykte sig þa snere Guds Reide sier fra honum, so ad ecke vard allt fordiarfad, þviad þar var enn nockud Gott epter j Juda.

II. 13. Svo stadfestest nu Kong Roboam j Jerusalem, og rijkte. Roboam hafde eitt Aar og Fiorutijge þa hann vard Kongur, Enn hann rijkte Seitian Aar j Jerusalem, j þeim Stad sem DROTTinn hafde utvaled, af øllum Israelis Ættum, ad hann villde þangad setia sitt Nafn. Hans Mooder hiet Naema, og var Ammonitisk.

14 Og

14. Og hann giordе jlla Hlute, og skickade ecke sijnu Hiarta ad leita DROTTins.

15. Enn Roboams Giorningar, bæde þeir firstu og sijdurstu, þeir eru skrifader j Giorninga Book Semaja Propheta, og Iddo Sioaanda, og uppteiknader. Þar til var og Strijd millum Roboams og Jeroboams alla þeirra Lijfdaga.

16. Og Roboam sofnade med sijnum Fedrum, og var jardadur j Borg Davids, og hans son Abia vard Kongur j hans Stad.

## XIII. Capitule.

Abia Kon: j Juda (I) berst vid Jeroboam Israels Konung, og (II) fær Sigur.

I. Á þvi aatianda Aare Jeroboams Kongs þa vard Abia Kongur j Juda,

2. Og rijkte þriu Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Michaja, Dotter Uriels af Gibea. Og þar upphoofst eitt Strijd a millum Abia og Jeroboams.

3. Og Abia bioo sig til Bardaga med Fiogur Hundrud Þusund Ungra og hraustra Strijdsmanna. Jeroboam bioost og til ad strijda vid hann med aatta Hundrud Þusund Ungra og Roskra Strijdsmanna.

4. Og Abia bioo sig til a Fialle Zemaraim, sem liggur a Fialle Ephraim, og sagde, Heyr mig Jeroboam, og allur Israel!

5. Vited þier ei, ad DROTTenn Gud Israels hefur giefid David Kongsrijke j Israel æfinlega, honum og hans sonum, eirn Sallts Seattmaala?

6. Enn Jeroboam, son Nebats, Þienare Salomons, sonar Davids, hoof sig upp, og fiell fra sijnum Herra.

7. Og margt Lausingia Folk og Born Belials gaasu sig til hans, og hann stirkte sig moote Roboam, syne Salomons, þvi Roboam var ungur og blauthiartadur, so hann kunne ecke ad veria sig fyrer þeim.

8. Nu hugsed þier ad setia ydur upp j moote Rijke DRottins, sem er under sonum Davids, fyrer þvi, ad þier erud miog marger, og hafed þa Gullkaalfa, sem Jeroboam giorde ydur til Guda.

9. Hafed þier ecke utreked Born Aarons DRottins Presta, og Levitana, og hafed giort ydur sialfsum Presta, so sem Þioder Landsins? Hvor sem kiemur med ungann Uxa og Sio Hruta, ad fylla sijna Hond, hann verdur þeirra Prestur sem ecke eru Guder.

10. Enn DRottinn Vor Gud er med oss, hvorn vier ecke yfergiefum, og þeir Kiennemenn sem þiona DRottne, Aarons Born, og Levitarner j þeirra giorninge;

11. Og þeir uppkveikia DRottins Brennefoorner hvorn Morgun, og hvort Kvolld, So og þad gooda Reykverk, og tilreida Braudenn a þvi Hreina Borde, og tilbua þa Gullegu Liosastiku, med sijnum Lompum, so þeir tendrest hvorn Aptan, þviad vier behölldum Guds Vors DROttins Vardhallde, enn þier hafed yfergiefed hann.

12. Sioa, Gud er med oss fremst j vorre Fylkingu, og hans Prestar, og Trametararner til ad trameta, ad þar verde trametad a moote ydur. Þier Israels Born, beriest ei a moote DROttne ydra Fedra Gude, þvi þad mun ecke luckast ydur.

II. 13. Og Jeroboam giorde Launsaatur allt um kring, ad hann kiæme til baka vid þa, so ad þeir være framan fyrer Juda, og Launsaatred a bak til vid þa.

14. Enn sem Juda snere sier nu vid, Sioa, þa var þar Strijd bæde j fyrer og til baka. Þa kolludu þeir til DROttins, og Prestarner bliesu j Basunurnar.

15. Og hvor Madur j Juda hroopade, og þa hvor Madur j Juda hroopade, þa plaagade Gud Jeroboam, og allann Israel, fyrer Abia, og Juda.

16. Og Israels Born flydu fyrer Juda, og Gud gaf þa j þeirra Hendur.

17. So ad Abia og hans Folk veitte þeim miked slag, og þar fiellu nidur slegner af

Israel Fimm Hundrud Þusunder ungra Strijdsmanna.

18. So urdu Israels Born underlogd a þeim sama Tijma, Enn Juda Born urdu hugguð, þvi þeir treystu uppa DROttinn þeirra Fedra Gud.

19. Enn Abia sokte epter Jeroboam, og og vann Borger fyrer honum, BethEl med hennar Dætrum, Jesana med hennar Dætrum, og Ephron med hennar Dætrum.

20. So ad Jeroboam megtadest ecke framar aptur, so leinge sem Abia lifde, enn DROttinn ploagade hann, so ad hann doo.

21. Enn sem Abia var stirkur ordenn, þa took hann sier Fiortan Eiginkvinnur, og gat Tvo og Tuttugu Sonu, og Sextan Dætur.

22. Enn hvad fleyra er ad seigia af Abia, af hans Vegum, og hans Giorningum, þad er skrifad j Historiu Iddo Spaamanns.

XIV. Cap. 1. Og Abia sofnade med sijnum Fedrum, og þeir jordudu hann j Davids Borg, og Assa, hans Son, vard Kongur j hans stad, og a þeim Dogum var Landed j kirdum um Tiju Aar.

## XIV. Capitule.

Asa Kongur j Juda (I) afmaer Skurdgoda Dijrdkun; (II) Bigger Fastar Borger; (III) Heriar mote Serah af Morlande.

I. 2. Og Assa giorde þad sem riett var og þacknæmelegt fyrer DRottne hans Gude,

3. Og took burt þau annarlegu Alltare og Hæderner, og sundur sloo Bilætinn og upphioo Lundana.

4. Hann liet seigia Juda, ad þeir skylldu leita DROttins þeirra Fedra Guds, og breita epter Logmaalenu og Bodordunum.

5. Og hann burt took þær Hæder og Afgudena ur ollum Borgum j Juda, þviad Rijked var j Fride under honum.

II, 6. Og hann biggde sterkar Borger j Juda, þvi Landed var stilled, og eckert Strijd var j moote honum a þeim somu Aarum, þviad DROttinn gaf honum Frid.

7. Og hann sagde til Juda, Laatum oss biggia þessar Borger, og færa Murvegge j kringum þær, og Turna, Port, og Grindur, a medan Landed er enn nu fyrer oss. Þviad vier hofum leitad DROttins Vors Guds, og hann hefur giefed oss Frid allt um kring. So biggdu þeir, og þad gieck framm luckusamlega.

8. Og Assa hafde eirn mikenn Her, hver ed bar Skiolld og Spioot, af Juda þriu Hundrud Þusund Manna, og af BenJamin Tvo Hundrud og aattatijge Þusunder, sem ad Skiolldu baaru, og kiæner voru med Boga, og þetta voru allt sterker Kappar.

III. 9. Og Serah af Morlande foor ut j moote þeim med eirn miog mikenn Her, Þusundsinnum Þusund, þar ad auk þriu Hundrud Vagna, og kom allt til Maresa.

10. Og Assa foor j moote honum, Og þeir biugguſt til Bardaga, j Dalnum Zephata, hioa Maresa.

11. Og Assa kallade a DROttinn sinn Gud, og sagde, DROttinn! Eingenn er mismunur fyrer þier, ad hiaalpa med morgum, edur þar sem magtarlaust er. Hiaalpa oss DROTTinn Vor Gud! Þvi vier vonum a þig, og vier erum komner j þijnu Nafne moote þessum stoora Mannfiollda, DRottinn Vor Gud! Eingenn Mann maa sier nockud a moote þier.

12. Og DROttinn ploagade þa Moriana fyrer Assa, og fyrer Juda, so þeir fludu.

13. Og Assa, og hans Folk, sem var med honum, raaku flottann allt til Gerar, og þeir Morianar fiellu, so ad eingenn af þeim vard lifande epter, og þeir voru j hel slegner fyrer DROttne, og hans Her, og þeir baaru miked Herfang þar fraa.

14. Og hann sloo alla Stadena j kringum Gerar, þviad DROttins Otte kom yfer

þa,

þa, Og þeir rændu allar Borger, þviad þar var miked Herfang j þeim.

15. Og þeir sloou nidur Fiehusenn, og feingu O-grynne Sauda og Ulfallda, og komu so aptur j Jerusalem.

# XV. Capitule.

Hverssu ad Assa Kon: var (I) Gudrækenn af Hiarta, og (II) Alvørugefinn i sinne Vandlæting.

I. Og Ande Guds kom yfer Assaria, son Odeds.

2. Hann gieck ut j moote Assa, og sagde til hans, Heyr mig Assa, og allur Juda, og BenJamin! DROttinn er med ydur, þviad þier erud med honum, og þa þier leited ad honum, lætur hann ydur finna sig. Enn ef þier yfergiefed hann, þa mun hann og so yfergiefa ydur.

3. Þar skulu vera marger Dagar j Israel, ad þar mun eingenn riettur Gud vera, eingenn Prestur sa sem kienner, og eckert Løgmaal.

4. Og þa þeir snua sier j sinne Neyd til DROttins Guds Israels, og leita ad honum, þa mun hann laata sig finna.

5. A þeim Tijma skal þeim ecke vegna vel sem ad ganga ut og jnn, þvi þar skal verda stoor Haavade yfer øllum þeim sem bua a Jørdunne.

6. Þvi eitt Folk mun sundurknusa eitt annad, og eirn stadur annann, þvi Gud mun skielfa þa med margskonar Angist.

7. Enn þier skulud vera med einu goodu Giede, og taked ecke ydar Hendur þar fraa, þvi ydar Giørningur hefur sijn Laun.

8. Enn sem Assa heyrde þesse Ord og Spaadoom Odeds Spaamanns, þa stirktest hann, og j burt took þa Svijvirding af øllu Juda og BenJamins Lande, og so lijka af þeim Borgum sem hann hafde unned a Fiallenu Ephraim, og hann endurbætte Alltare DROttins, þad sem stood fyrer DROttins Fordyrum.

9. Og hann samansafnade øllum Juda og BenJamin, og þeim ütlendu af Ephraim hiaa þeim, Manasse og Simeon, þvi marger af þeim j Israel fiellu til hans, þa þeir saau, ad DROTTinn hans Gud var med honum.

10. Og þeir sofnudust saman j Jerusalem, j þeim þridia Maanade a fimmtanda Aare Rijkis Assa,

11. Og offrudu til DROttins þann sama Dag, af þvi Herfange sem þeir høfdu heim fært, Sio Hundrud Uxa, og Sio Þusund Saude.

12. Og þeir geingu j Saattmaala, ad leita DROttins þeirra Fedra Guds, af øllu Hiarta, og af allre Saalu.

13. Og hvør sa sem ecke villde leita DROttins Israels Guds, hann skyllde missa Lijfed, bæde meire hattar og minne, bæde Mann og Kvinna.

14. Og þeir sooru DROttne med haarre Raust, med Kalle, og Trometum, og Basunum.

15. Og allur Juda vard gladur yfer Eidnum, þviad þeir høfdu svared af øllu Hiarta, og þeir leitudu hans af øllum Vilia, Og hann liet þa finna sig, og DROttinn gaf þeim Frid umhverfes.

II. 16. Og Kong Assa afsette sijna Modur Maecha af Embættenu, þvi hun hafde stiftad Miplezeth j einum Lunde. Og Assa afmaade hennar Miplezeth, og braut þad sundur, og brennde þad j Læknum Kidron.

17. Enn þær Hæder j Israel voru ecke burt teknar, þo var Assa Hiarta riett alla hans Daga.

18. Og hann flutte jnn j Guds Hus þad sem hans Fader hafde helgad, og þad hann sialfur hafde helgad, Silfur, Gull, og Kier.

19. Og þar var eingenn Ofridur jnn til þess Fimmtanda og Þrittugasta Aars Assa Kongsrijkis.

XVI.

## XVI. Capitule.

Asa Kon: syndgar Storkostlega (I) þar hann giörer Samband vid Benhadad; (II) Lætur setia Einn af Guds Spaamønnum i Fangelse; og (III) treyster framar Læknurum enn Gude.

I. A þvi Sextanda og Tuttugasta Aare Assa Kongsrijkes þa foor Baesa Israels Kongur j moot Juda, og biggde upp Rama, ad hamla Assa Juda Konge ad fara ut og jnn.

2. Enn Assa took af þeim Fiesiodum sem voru j DROttins Huse, og so j Kongsins Huse, Silfur og Gull, og sende til Benhadad, Kongsins j Syria, hvør ed bioo j Damasco, og liet seigia hønum.

3. Þar er Saattmaal j millum mijn og þijn, og millum mijns og þijns Fødurs. Þar fyrer hefe eg sendt þier Silfur og Gull, ad þu slijter þad Samband vid Baesa Israels Kong, so hann vijke fra mier.

4. Benhadad hlydde Assa Konge, og sende sijna Strijdshofdingia a mote Israels Stødum, og þeir sloou Eion, Dan og Abel Maim, og alla Nephthali Kornstade.

5. Enn sem Baesa heyrde þad, þa hætte hann ad biggia Rama, og liet af sijnum giorninge.

6. Og Kong Assa took allann Juda til sijn, og þeir droogu þa Steina og þa Vidu fraa Rama, med hvorium Baesa biggde, Og hann biggde þar med Geba og Mizpa.

II. 7. A þeim Tijma kom Hanani Siaande til Assa Juda Kongs, og sagde til hans, Søkum þess, ad þu setter þitt Traust til Kongsins af Syrlande, enn treyster ecke uppa DRottinn þinn Gud, þar fyrer er Kongsins Magt af Syria sloppenn ur þinne Hende.

8. Eda voru ecke þeir enu Morianisku, og þeir af Libya, eirn stoor Hoopur, med miøg mørgum Vøgnum og Riddara lide, þo gaf DROTTinn þa j þijna Hønd, þa þu setter þitt Traust a hann.

9. Þvi Augu DROTTins siaa øll Lønd, ad hann stirkie þa sem eru hiaa hønum med ollu Hiarta. Fraviislega giorder þu, Þar fyrer muntu hiedan j fra hafa Ofrid.

10. Enn Assa vard reidur uppa þann Siaanda, og sette hann j Fangelse, af þvi hann møglade a moot hønum um þetta efne. Og Assa nidurþrickte nockrum af Folkenu a þeim Tijma.

11. Enn Assa Giorningar, bæde þeir firstu og hinu sijdurstu, Sia, þeir eru skrifader j Juda og Israelis Konga Book.

III. 12. Og Assa vard siukur j sijnum Footum, a þvi Nijunda og þritugasta Aare hans Kongsrijks, og hans Kranckdoomur jookst miøg, Og hann leitade ecke DROTTins j sijnum Siukdoome, helldur Læknara.

13. So sofnade Assa burt med sijnum Fedrum, og andadest a hinu firsta og fertugasta Aare sijns Kongdoms.

14. Og þeir jordudu hann j hans Grøf, þeirre sem hann liet sier grafa j Davids stad. Og þeir løgdu hann j sinn Legstad, sem þeir hofdu fyllt med goodu Reykelse, og allra handa dyrdlegum Jurtum, tilreiddum epter Apothekarans Kunst, og giordu eitt stort Baal.

## XVII. Capitule.

Josaphat Juda Konungur hefur mikla Farsæld fyrer saker sinnar Gudhrædslu.

Og hans son Josaphat vard Kongur j hans stad, og hann vard megtugur moot Israel.

2. Hann sette Strijdsfolk j allar sterkar Borger Juda, skickade og Embættis Menn um Juda Land, og j Ephraims Borger, sem hans Fader Assa hafde unned.

3. Og DROttinn var med Josaphat, þviad hann gieck a firstu Vegum sijns Fødurs Davids, og hann leitade ecke epter Baalim,

4. Helldur efter sinna Fedra Gude, og gieck j hans Bodordum, enn ecke epter Israelis Verkum.

5. Og þvi stadfeste DROTTinn hønum Kongs

Kongs Rijked, Og aller j Juda gaafu Josaphat giafer, og hann hafde Rijkdom og Vegsemd yferfliotarlega.

6. Og sem hans Hiarta var orded oruggt j Veige DROTTins took hann epter þad þær Hæder og Lunda j burt af Juda.

7. Og a þvi þridia Aare sijns Rijkis ut sende hann sijna Hofdingia, Benhail, Obadia, Sacharia, Nethaneel, og Michaja, ad þeir skylldu kienna j Stodum Juda.

8. Og Levita med þeim, Semaia, Nethania, Sebadia, Asahel, Semiramoth, Jonathan, Adonia, Thobia, og TobAdonia, og med þeim Prestana, Elisama og Joram.

9. Og þeir kienndu j Juda, og hofdu Guds Logmaals Book med sier, og ferdudust j kring um allar Borger Juda, og lærdu Folked.

10. Og Otte DROTTins fiell yfer oll Kongarijke j Londunum, sem ad laau j kringum Juda, so þeir bordust ecke a moote Josaphat.

11. Og þeir Philistei færdu Josaphat Gaafur, mikenn Punga Silfurs. Og þeir af Arabia færdu honum Sio Þusund og Sio Hundrud Hruta, og Sio Þusund og Sio Hundrud Hafra.

12. So efldest Josaphat, og vard alltijd meire. Hann biggde Slot og Kornstade j Juda,

13. Og hafde miklar (a) Gnægter j Stodum Juda, og Strijdsmenn, og volldugt Folk j Jerusalem.

(a) (Gnægter) Ei ad eins Vister, Helldur Vopn og Veriur.

14. Og þesse var Skipan j þeirra Fedra Huse, þeir sem ad voru ypparster j Juda yfer Þusund. Hofdinge Adna, og med honum voru þriu Hundrud Þusund þad valdasta Lid.

15. Nærst honum var Hofdinge Johanan, med honum voru Tvo Hundrud og aattatijge Þusunder.

16. Nærst honum var Amasia, son Sichri, hinn Sialfviliuge DROttins, og med honum voru Tvo Hundrud Þusund hraustra Manna.

17. Enn af Bornum BenJamins var Eliada mikell Madur, og med honum Tvo Hundrud Þusund, hvørier utbuner voru med Boga og Skiolldu.

18. Nærst honum var Josabad, og med honum voru Hundrad og aattatijge Þusund, utbuner til Bardaga.

19. Þesser aller tooku vakt a Kongenum, fyrer utan þa sem Kongurenn hafde sett j sterkar Borger j allre Juda.

## XVIII. Capitule.

*Josaphat helldur ut i Bardaga med Achab a mote þeim Syrlendsku.*

Og Josaphat hafde mikenn Rijkdom, og Dyrd, og hann teingdest med Mægdum vid Achab.

2. Og ad Tveimur Aarum lidnum foor hann ofann til Achab j Samaria. Og Achab liet slaatra til hans, og til þess Folks sem med honum var, Fiolda Fiaar, og Uxa. Og hann kom honum til ad ferdast upp til Ramoth j Gilead.

3. Og Achab, Israels Kongur, sagde til Josaphats, Juda Kongs, Far þu med mier til Ramoth j Gilead. Hann sagde til hans, Eg er so sem þu, og mitt Folk so sem þitt Folk, vier vilium med þier j Bardagann.

4. Enn Josaphat sagde til Israels Kongs, Kiære, Leita þu til Orda DROTTINS j Dag.

5. Og Israels Kongur samansafnade Spaamonnum, Fiorum Hundrudum Manns, og sagde til þeirra, Skulum vier ferdast til Bardaga, j Ramoth, j Gilead, eda skal eg laata þad bijda? Þeir sogdu, Far þu upp þangad, DROTTinn mun giefa þa j Kongsins Hond.

6. Þa sagde Josaphat, Er hier hvørge enn nu eirn DROttins Spaamadur, so vier meigum spyria hann ad?

7. Israels Kongur sagde til Josaphat, Er hier enn eirn Madur, fyrer hvorn Mann kann ad adspyria DROttinn, Enn mier er illa vid hann, þviad hann spaaer mier einskis Gods, helldur jafnan Ills, og þad er Micheas, Son Jemla. Josaphat svarade, Kongurenn tale ecke so.

8. Og Israels Kongur kallade eirn sinn Herbergia Svein, og sagde, Sæktu snarlega Micheam, Son Jemla.

9. Og Israelis Kongur, og Josaphat, Kongur Juda, satu hvor a sijnum Stole, skrydder Klædum, a Flotnum, fyrer Portdyrum Samariæ, og aller Spaamenn spaadu fyrer þeim.

10. Og Zedekia, Son Enaena, giorde sier Jaarn Horn, og sagde, So seiger DROTTinn, med þessu skalltu stanga þa Syros, þar til þu eydeleggur þa.

11. Og aller Spaamennerner spaadu eins lijka, og sogdu, Far upp þangad, þad mun þier luckast, DROTTinn mun giefa þa i Kongsins Hond.

12. Og Sendemadurenn, sem var burt geingenn ad kalla a Micheam, talade vid hann, og sagde, Siaa, Spaamannanna Rædur eru samsinna goodar fyrer Kongenum, Eg bid ad þu laater þijn Ord og vera eins og þeirra, og tala gott.

13. Micheas sagde, So sannarlega, sem ad DROTTinn lifer, hvad minn GUd seiger, þad skal eg tala.

14. Og sem hann kom til Kongsins, seiger Kongurenn til hans, Michea, Skulum vier fara ad beriast i Ramoth, j Gilead, eda skal eg laata þad bijda? Hann sagde, Jaa, Fared upp þangad, þad mun luckast ydur, þad skal giefast j ydar Hendur.

15. Þa sagde Kongurenn til hans, Eg sære þig enn einu sinne, ad þu seiger mier ecke annad enn hvad satt er j Nafne DROttins.

16. Þa sagde hann, Eg saa allann Israel j sundur tvijstrast a Fiollum uppe, lijka sem Sauder, þeir sem ongvann Hyrder hafa. Og DROttinn sagde, Hafa þesser ongvann Herra? Snue hvor og eirn aptur med Fride.

17. Þa sagde Israels Kongur til Josaphats, Sagda eg þier ecke ad hann spaaer mier einskis Gods, helldur Ills?

18. Og hann sagde, Þar fyrer heyred þier Ord DROTTins, Eg saa DROTTenn sitia a hans Stoole, og allur Himensins Her stood til hans hægre og vinstre Handar.

19. Og DROTTinn sagde, Hver vill koma Achab Israels Konge til, ad hann fare upp, og falle j Ramoth, j Gilead? Enn sem eirn sagde þetta, enn annar þad,

20. Þa kom þar eirn Ande framm, og gieck fyrer DROTTinn og sagde, Eg vil koma honum til þess. Og DROTTinn sagde til hans, Hvar med?

21. Hann sagde, Eg vil fara wt, og vera eirn Fals-Ande j allra hans Spaamanna Munnum. Og hann sagde, Þu munt koma honum þar til, og þu munt koma þvi til Leidar, far burt, og gior so,

22. Siaa nu, DROTTinn hefur giefid eirn Fals-Anda j Munn þessara þinna Spaamanna, og DROTTinn hefur talad illt i giegn þier.

23. Þa gieck Zedekia, Son Enaena framm, og sloo Micheam a Kinnvangann, og sagde, Um hvorn Veg er Ande DROTTins geingenn fra mier, ad hann talar fyrer þig?

24. Micheas sagde, Siaa, þu munt siaa þad, nær þu fer jnn j þad jnnsta Svefnherberge ad fela þig.

25. Þa sagde Israels Kongur, Taked Micheam, og laated hann vera hiaa Ammon Stadarins Fovita, og hiaa Joas Kongs Syne.

26. Og seiged, So seiger Kongurenn, legged þennan j Myrkvastofu, og fæded hann med Sorgarbraude, og Vatne, þar til ad eg kiem aptur med Fride.

27. Og Micheas sagde, Ef þu kiemur aptur

aptur med Fride, þa hefur ei DROttinn talad fyrer mig. Og hann sagde, Heyred þad allur Lydur!

28. So foor nu Israels Kongur, og Josaphat, Kongur Juda, upp til Ramoth j Gilead.

29. Og Israels Kongur sagde til Josaphat, Eg vil breita Klædabwnade mijnum, og fara so til Bardagans, Enn haf þu þijn eigenn Klæde. Og Israels Kongur took Klæda Skipte, og þeir komu j Bardagann.

30. Enn Syria Kongur baud sijnum yppurstum Riddorum, Þier skulud ecke beriast, hvorke jmoot smaam nie stoorum, utann alleinasta jmoote Israels Konge.

31. Nu sem þeir Yppurstu Riddarar saau Josaphat þa þeinktu þeir, Það er Israels Kongur, og þeir slogu Hring um hann, ad strijda jmoote honum, enn Josaphat kallade upp, og DROTTinn hiaalpade honum, og GUD snere þeim fra honum.

32. Þvi þa þeir Yppurstu af Riddaralidenu saau, ad hann var ecke Israels Kongur, þa sneru þeir fra honum.

33. Enn eirn Mann spannade sinn Boga, ovitande a hvorn hann stefnde, og skaut Israels Kong millum Briniunnar, og Sverdreimarennar. Þa sagde hann til sijns Vagnmanns, Snu þinne Hende, og flyt mig wr Bardaganum, þvi eg er saar ordenn.

34. Og þad vard mikel Orusta a þeim sama Deige, og Israels Kongur stod j sijnum Vagne, a moot þeim Syris, allt til Kvollds, og andadest um Soolarsetur.

# XIX. Capitule.

Josaphat setur Domara (I) j þeirre Verallblegu, og (II) Andlegu Stett.

I. Enn Josaphat, Kongur Juda, kom heim aptur med Fride til Jerusalem.

2. Og Jehu Siaande, Son Hanani, gieck wt jmote honum, og sagde til Josaphats Kongs, Skalltu so veita Lid þeim ogudlega, og elska þa sem hata DROttinn? Og þvi er Guds Reide yfer þier.

3. Enn þo er þar nockud gott funded hiaa þier, ad þu hefur upphøggved Lunda af Landenu, og hefur tilbwed þitt Hiarta ad leita DROTTins.

4. So var Josaphat j Jerusalem. Og hann foor wt j annad sinn a medal Folksins, fra BerSeba, allt til Fiallsins Ephraim, og leidde þa aptur til DROTTins þeirra Fedra Guds.

5. Og hann sette Domendur j Landed, j allar sterkar Borger Juda, nockra j hvoria Borg.

6. Og hann sagde til Domandanna, Siaaed til hvad þier giored, Þviad ei hallded þier Doma fyrer Mennena, helldur fyrer DROTTinn, og hann er med ydur j Domenum.

7. Latted þvi DROTTins Otta vera hiaa ydur, og vardveited ydur, og giored þad, þviad þar er eckert Rangläte hiaa DRottne vorum Gude, eige helldur Persónunnar aalit, og ei tekur hann giafer.

II. 8. Og Josaphat skickade j Jerusalem, af Levitunum, og Prestum, og af þeim yppurstu Fedrum j Israel, yfer DROTTins Doma, og yfer Maalaferlenn, og liet þa bwa j Jerusalem.

9. Og hann baud þeim, og sagde, Giored so j DRottins Otta, trulega, og med riettu Hiarta.

10. J ollum þeim Maalefnum, sem koma fyrer ydur, fra ydar Brædrum, sem bwa j þeirra Borgum, j millum Blods, og Blods, j millum Logmaals, og Bodorda, j millum Setninga, og Riettinda, skulud þier undervijsa þeim, so ad þeir syndgest ecke moote DROTTne, og kome ein Reide yfer ydur, og ydar Brædur, giored so, og þa munud þier ecke syndgast,

11. Siaa, Amaria Kiennemadur er sa hinn ypparste yfer ydur, j ollum Maalefnum DROTTins. So er Sebadia, Son Isma-

Ismaels, Hofdinge j Juda Hwse, j ollum Kongsins Maalaferlum. So hafed þier Embættis-Menn Levitana fyrer ydur, vered hughrauster, og giored þetta, og DROTTinn mun vera med þeim enu goodu.

# XX. Capitule.

Josaphats I) Stiriolld; (II) Huggun; (III) Sigur; (IV) Rijk.s-Stiorn.

I. Epter þetta komu Moabs Born, og Ammons Born, og þeir af Ammuninn med þeim, til ad strijda jmoot Josaphat.

2. Og Mann kom, og kunngiorde þetta Josaphat, og sagde, Þar kiemur eirn stoor Hoopur a moote þier af Syria, Hinumeigenn Hassins, og sioa, þeir eru j Hazezon Thamar, þad er, Engeddi.

3. Og Josaphat vard oottasleigenn, og stickade sitt Andlit til ad leita DRottins, og hann liet wthroopa eina Fostu yfer allann Juda.

4. Og Juda kom til samans, ad leita DROTTins, og þeir komu af ollum Stodum Juda, ad leita DROTTins.

5. Og Josaphat gieck a millum Mannsafnadarins Juda, og Jerusalem, j Hwse DROTTins, fyrer þeim nya Garde.

6. Og sagde. DROTTinn vorra Fedra GUD! ert þu ecke GUD j Himnenum, og stiornar j ollum Heidingia Kongarijkium? Og j þinne Hende er Kraptur, og Maattur, og þar er eingenn, sem kann ad standa j moote þier.

7. Hefur þu eige, Vor GUD! wtreked þessa Lands Innbyggiara, fyrer þijnu Folke Israel? Og hefur giefed þad Sæde Abrahams, sem elskar þig æfennlega,

8. Ad þeir skylldu bua þar jnne, og þeir hafa biggt þier þar inne eirn Helgedom, handa þijna Nafne, og sagt.

9. Nær ad nockur Olucka, Sverd, Refsing, Drepsott, edur Hallære kiemur yfer oss, þa skulum vier standa j þessu Huse fyrer þier, (þviad þitt Nafn er j þessu Huse) og kalla til þijn, j vorre Neyd, þa vilier þu heyra og hioalpa.

10. Sioa, nu eru Born Ammons og Moabs, og þeir af Fiallenu Seir, yfer hvoria þu liest Israels Born ecke ferdast, þa þeir ferdudust af Egyptalande, helldur urdu þeir ad vijkia fraa þeim, og ecke eydeleggia þa.

11. Og sioa, nu laata þeir oss giallda þess, og koma ad utskufa oss af þinne Erfd, sem þu hefur giefed oss.

12. Vor Gud! Villt þu ecke dæma þa? Þviad eingenn Kraptur er med oss a moote þessum stoora Fiolda, sem nu kiemur a moote oss. Vier vitum ecke hvad vier skulum giora, helldur rennum vier vorum Augum til þijn.

13. Og allur Juda stood fyrer DRottne, med þeirra Bornum, Kvinnum, og Sonum.

II. 14. Og Ande DROTTins kom yfer Jehasiel, son Zacharia, sonar Benaja, sonar Jehiel, sonar Mathania Levita, af Bornum Assaphs, midt a millum Samkundunnar,

15. Og sagde, Athuged þad aller af Juda, og þier Innbyggiarar j Jerusalem, og Josaphat Kongur, So seiger DROTTinn til ydar, Þier skulud ecke hrædast nie oottast þennan mikla Mannfiolda, þviad þier beriest ecke, helldur Gud.

16. A Morgun skulud þier fara ofann til þeirra, Og sioa, ad þeir ferdast upp til Ziz, og þier munud mæta þeim hioa Reyrnum j Læknum, þvert yfer fraa Eydemorku Jeruel.

17. Þviad eige munud þier strijda j þessare Sok, Fared ad eins þangad og standed, og sioaed Hioalpraad DROttins sem er med ydur. Juda og Jerusalem! oottest ecke, og vered ecke hrædder, fared a Morgun ut a moote þeim, og DROTTinn er med ydur.

18. Þa beigde Josaphat sig nidur til Jardar med sijnu Andlite, og allur Juda, og Innbyggiarar j Jerusalem fiellu framm fyrer DROttinn, og tilbaadu DROTTinn.

19. Og Levitarner af Kahathiters Bornum, og af Bornum Korhiters, bigguzt til ad lofa DRottinn Israelis Gud, med haarre Raustu j Himenenn.

III. 20. Og snemma Morguns tooku þeir sig upp, og foorn ut j Thekoa Audn. Og sem þeir ferduduſt ut, þa ſtood Joſaphat og ſagde, Heyred mig þier af Juda, og þier Innbyggiarar j Jeruſalem, Trued a DROttenn ydarn Gud, ſo mun ydur vera ohætt, og trued hans Spaamonnum, þa ſkulud þier faa Lucku.

21. Og hann undervijſade Folkenu, og ſette Saungvarana fyrer DROTTne, ad þeir lofudu j Heilagre Pryde, ad þeir fære undan þeim Vopnada Her, og ſogdu, Packed DROTTne, þviad hans Miſkun varer Eylijflega.

22. Og ſem þeir upphoofu ad packa og lofa þa liet DROTTinn þad Launſaatur, ſem komed var j moote Juda, falla yfer Ammons og Moabs Born, og yfer þa af Fiallenu Seir, og ſloou þa.

23. Pa ſtoodu Ammons og Moabs Born moot þeim af Fiallenu Seir, ad drepa þa, og afmaa þa. Og ſem þeir høfdu eydt þeim ollum af Fiallenu Seir, þa hiaalpade hvor odrum, ſo ad þeir og fordiørfudu ſig.

24. Enn ſem Juda kom til Mizpe, hiaa Eydemorkenne, þa ſneru þeir ſier j moote Hoopnum, og ſiaa, ad þar laau þeir daudu Lijkamer a Jordunne, ſo ad eingenn hafde undann komeſt.

25. Og Joſaphat kom med ſijnu Folke, ad ſkipta þeirra Herfaange, og þeir fundu a medal þeirra ſo miked Gots og Klæde, og koſtuleg Pijng, ſem þeir tooku af þeim, ſo þeir gaatu ei bored þad, og þeir ſkiptu þvi Herfaange ut j þria Daga, þvi þad var ſo miked.

26. Pann fiorda Dag komu þeir til ſamans j Lofs Dalnum, þvi þeir lofudu þar DROTTinn, þar fyrer heiter ſa ſtadur Lofs Dalur allt til þeſſa Dags.

27. So ſnere hvor Madur af Juda og Jeruſalem heim aptur, og Joſaphat fremſtur, ad þeir fære til Jeruſalem med Fagnade, þviad DROTTinn hafde giefed þeim eina Glede yfer ſijnum Ovinum.

28. Og þeir komu jnn j Jeruſalem med Pſalltorum, Horpum, og Baſunum, til DROttins Huſs.

29. Og Guds Otte kom yfer oll Kongarijke j Londonum, þa þeir heyrdu, ad DROttinn hafde bareſt j moot Iſraelis Ovinum.

30. So ſtillteſt Kongsrijke Joſaphats, og Gud gaf honum Frid umhverfis.

IV. 31. Og Joſaphat rijkte yfer Juda, og hann var fimmtan aara og Tuttugu ad Alldre þa hann vard Kongur, enn hann rijkte Fimm og Tuttugu Aar j Jeruſalem. Hans Moder hiet Aſuba, Dotter Silhi.

32. Og hann gieck a vegum ſijns Fodurs Aſſa, og liet ecke af ad giora þad ſem DROttne lijkade vel.

33. Utan þær Hæder voru ecke burt teknar, Sokum þeſs, ad Folked hafde enn ecke ſnued ſijnu Hiarta til DROTTins þeirra Fedra Guds.

34. Enn þad ſem meira er ad ſeigia um Joſaphat, bæde þad ed firſta og ſijdarſta, Siaa, þad er ſkrifad j Giorninga Book Jehu, ſonar Hanani, ſem hann hefur ſkrifad j Iſraels Konga Book.

35. Epter þad forlijkade Joſaphat Juda Kongur ſig vid Ahaſia, Iſraels Kong, hvor ed var ogudlegur med ſijnum Giorningum.

36. Enn hann ſamtook vid hann ad giora Skip, ſem ſkyllde fara a Sioenn, og þeir giordu Skipenn j EzeonGaber.

37. Enn Eliezer, ſon Dodava, af Mareſa, ſpaade moot Joſaphat, og ſagde, Sokum þeſs, ad þu forlikter þig vid Ahaſia, þa hefur DROTTinn j ſundur ſlited þinn giørning. Og Skipinn brotnudu j ſundur, ſo þau maattu ecke a Sioo fara.

## XXI. Capitule.

(I) Joſaphats Daude. (II) Um Mord-Verk Jorams; (III) Hans Afgudadyrdkun; (IV) Straff; (V) Daude.

I. Og Joſaphat ſofnade med ſijnum Fedrum, og var jardadur hiaa ſijnum Fedrum

Fedrum j Borg Davids, og hans son, Joram, vard Kongur j hans stad.

II. 2. Og haun ætte Brædur, syne Josaphats, Asaria, Jehiel, Sacharia, Azaria, Michael, og Sephatia, þesser aller voru Born Josaphats, Juda Kongs.

3. Og þeirra Fader gaf þeim margar gaafur, j Silfre, Gulle, og Giersemum, med sterkum Borgum j Juda. Enn Joram gaf hann Kongs Rijked, þvi hann var Frummgieteun.

4. Nu sem Joram kom upp yfer sijns Fodurs Kongs Rijke, og fieck Magt yfer þvi, þa drap hann alla sijna Brædur med Sverde, so og nockra af Hofdingium j Israel.

III. 5. Joram hafde Priatijge og Tvo Aar þa hann vard Kongur, og rijkte ætta Aar j Jerusalem.

6. Og hann gieck a Israels Konga vegum, so sem Achabs Hus giorde, þvi Dotter Achabs var hans eigenn Kvinna, Og hann giorde þad sem DROTTne mislijkade.

7. Enn þo villde DROTTinn ecke fordiarfa Davids Hus, sokum þess Saattmaala, sem hann hafde bunded vid David, og sem hanu mællt hafde, ad giefa honum, og hans Bornum ætijd eitt Lios.

IV. 8. A hans Dogum fiellu Edomitar fra Juda, og settu eirn Kong yfer sig.

9. Pviad Joram var farenn yfer um med sijnum Hofdingium, og aller Vagnar med honum, og hann took sig upp a Noattarþele, og sloo Edomita (a) allt um kring sig, og þa hina yppurstu fyrer Vognonum,

(a) (Allt um kring) Hann hefur svikſamlega dreped þa sem hielldu Vakt j kringum hann.

10. Og þvi fiellu Edomitar fra Juda, allt til þessa Dags. Pennann sama Tijma fiell og Libna fra honum. Pvi hann fyrerliet DROttinn Gud sinna Fedra.

11. Og giorde Hæder a Fiollunum Juda, og kom þeim j Jerusalem ad fremia Hoor, og afvega leidde Juda.

12. Og þar kom eitt Brief til hans fraa Elia Spaamanne, þad var so laatande, So seiger DROttinn Gud þijns Fodurs Davids, Sokum þess, ad þu hefur ecke genged a veige þijns Fodurs Josaphats, og eige helldur a Veige Assa, Juda Kongs,

13. Helldur geingur j Israels Konga Vegum, og giorer þad, ad jnnbyggendur Juda og Jerusalem fremia Hoor, epter Achabs Huss Hoordome, þar ad auk hefur þu dreped þijna Brædur af þijns Fodurs Huse, hverier ed betre voru enn þu;

14. Sioa, so skal DROttinn sloa þig med storre Plaagu, a þijnu Folke, a þijnum Bornum, a þijnum Kvinnum, og a ollu þijnu Gotse.

15. Og þu skallt hafa marga Siukdoma j þijnum Jdrum, þar til ad þijn Jnnyfle skulu af Siukdome falla ut, Dag fra Deige.

16. So uppvakte DROttinn j moot Joram Anda Philistinorum og Arabum, sem ad liggia hardt nærre Morlande.

17. Og þeir fooru upp til Juda, yferfiellu þa, og j burtu færdu allt þad Fie sem ad fannst j Kongsins Huse, og þar med hans Syne og hans Kvinnur, So hann hiellt ecke epter einum sijnum syne, utan Joachas hans yngsta Syne.

V. 18. Og epter allt þetta plaagade DROttinn hann j hans Jdrum, med soddann Siukdome sem var olæknanlegur,

19. Og þad varde Dag fra Deige; þa tveggia Aara Tijme var lidenn, þa fiellu hans Jdur fra honum, med hans Siukleika, so hann doo af vondum Soottum. Og þeir brenndu ecke Baal yfer honum, so sem þeir hofdu giort yfer hans Forfedrum.

20. Hann var Tolf og Tuttugu Aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte ætta Aar j Jerusalem. Og hann gieck so, ad þar var eingenn þocknan a. Og þeir jordudu hann j Davids stad, enn þo ecke a medal Grafa Konganna.

XXII.

# XXII. Capitule.

(I) Þa Ahasias Juda Kongur var andadur (II) Rijker Athalia Drottning sem Einn Tyranne.

I. Og þeir j Jerusalem giørdu Ahasia hans yngsta son til Kongs j hans stad. Þviad þeir Vijkingar, sem komu af Arabia, þeir høfdu j hel sleiged alla þa fyrre, og þvi vard Ahasia, son Jorams, Kongur j Juda.

2. Og Ahasia hafde Tvo um Fertugt þa hann vard Kongur, og hann rijkte eitt Aar j Jerusalem, Hans Moder hiet Athalia, Dotter Amri.

3. Hann gieck og a Vegum Achabs Huss, þvi hans Moder hiellt hønum þar til, ad hann var ogudlegur.

4. Þvi giørde hann þad sem DROttne jlla lijkade, lijka sem Hws Achabs, þvi þeir voru hans Raada-neyte, epter hans Fodurs Dauda, hønum til Fordiorfunar,

5. Enn hann gieck epter þeirra Raadum, og hann foor med Joram, Syne Achabs, Jsraels Kongs, j Bardaga, til Ramoth, j Gilead, a moote Hasael, Konge af Syria. Enn þeir af Syria slogu Joram,

6. Og hann snere aptur ad laata græda sig j Jesreel, þvi hann hafde Saar, sem hann fieck j Rama, þa hann bardest vid Hasael, Kong af Syria. Og Ahasia, Son Joram, Kongur Juda, foor ofann til Fundar vid Joram, Son Achabs, til Jesreel, sem siukur laa.

7. Þvi su Olucka var Ahasia tilskickud af Gude, ad hann kom til Joram, og foor so wt med Joram, moot Jehu, Syne Nimsi, hvørn DRottenn hafde smurt til þess, ad ydeleggia Achabs Hws.

8. Enn sem Jehu framde straffed a moote Hwse Achabs, þa fann hann nockra af þeim Hofdingium af Juda, og af Ahasia Brædra Børnum, þeir ed þionudu Ahasia, og hann slo þa jhel.

9. Enn hann leitade epter Ahasia, og fann hann þar hann hafde faled sig j Samaria. Og þeir færdu hann til Jehu, hann sloo hann jhel, og var jardadur, þvi þeir søgdu, Hann er Son Josaphats, sem leitade epter DROTTne af ollu sijna Hiarta. Og þar voru øngver fleyre til epter af Ahasia Hwse, sem Kongar yrde.

II. 10. Enn sem Athalia Moder Ahasias saa, ad hennar Son var daudur, þa took hun sig upp, og drap allt Konunglegt Sæde j Juda Hwse.

11. Enn Josabeath, Kongsins Syster, tok Joas, Son Ahasia, og stal hønum j burt, millum Kongsins Barna, sem jhel voru sleigenn, og liet hann med Foostru sinne j eitt Svefnherberge. So fool Josabeath, Dotter Jorams Kongs, og Kvinna Jojada Kiennemanns, hann fyrer Athalia, (þvi hun var Ahasia Syster) ad hann var ecke deyddur.

12. Og hann var geymdur med þeim j Guds Hwse Sex aar, so leinge sem Athalia var Drottning j Landenu.

# XXIII. Capitule.

Þa (I) Joas vard Kongur yfer Juda; (II) Deyde Athalia, og (III) Baals Hus var rifed nidur.

I. Enn a þvi Siounda aare took Jojada eitt øruggt Sinne fyrer sig, og took Hundrads Hofdingiana, sem var, Asaria, Son Jerohams, Jsmael, Son Johanan, Asaria, Son Obed, Maeseja, Son Adaja, og Elisaphat, Son Sichri, til eins Sambands vid sig.

2. Og þeir ferdudust umkring j Juda, og søfnudu øllum Levitunum til samans, af øllum Borgum Juda, og þeim yppurstum Fedrum j Jsrael, ad þeir skylldu koma til Jerusalem,

3. Og Allur Almwgenn giørde eitt Saattmaal vid Kongenn, j Guds Hwse. Og hann sagde til þeirra, Siaed, Kongsins Son

Son skal vera Kongur, so sem DROTTenn hefur talad um Born Davids,

4. Þar fyrer skulud þier nu so giora. Sa hinn Pridie Partur af ydur, sem geingur jnn um Þvottdags Helgena, af Prestonum, og Levitunum, skal vera hia Þrøskilldenum,

5. Og Pridiungurenn j Kongsins Hwse, og Pridiungurenn hia Grundvallarins Porte, enn allt Folked skal vera j Gardenum fyrer DROTTins Hwse.

6. Og eingenn skal ganga jnn j Hws DROTTins, utann þeir Prestar, og Levitar, sem þar þiona, þeir skulu jnn ganga, þviad þeir eru Helgedomurenn, og allt Folked skal giæta ad DROTTins Vardhallde.

7. Og Levitarner skulu skipa sier j kringum Kongenn, hvor med sitt Vopn j Hende. Hvor sem geingur jnn j Hwsed, sa skal deya. Og þeir skulu vera hia Kongenum þa hann geingur wt og jnn.

8. Og Levitarner, og allur Juda, giørdu allt so sem Jojada Prestur baud þeim, og hvør took sitt Folk, sem gieck til Þvottdags Helgarennar, med þeim sem fra geingu um Þvottdagenn, þvi Jojada Kiennemadur liet ecke þær Tvær Sveiter skiliast ad.

9. Og Jojada Kiennemadur fieck Hundradshøfdingiunum Spioot, og Skyllde, og Kong Davids Vopn, sem ad voru j Guds Hwse.

10. Og hann skipade øllu Folkenu, hvørn med sitt Vopn j Hendenne, fra þeirre Hægre Kroa j Hwsenu, og til þeirrar Vinstre Kroar til Alltaresins, og framm j Hwsed, allt j kring um Kongenn.

11. Og þeir frammleiddu Son Kongsins, og settu Koronuna a hann, og (a) Vitnisburdenn, og settu hann til Kongs, og Jojada med sijnum Sonum smurde hann, og þeir søgdu, Kongenn lifie Lucku!

(a) (Vitnisburdenn) Þad hlydde vel, ad Kongenum være bæde giefenn Koronann, og Bookenn, so hann skyllde ecke alleinasta vera megtugur, helldur og einnenn Vijs, ellegar (so ad seigia) ad vita Orded, og Riettenn, svo giøra Menn enn nu Kouga med Sverde, og Book. etc.

II. 12. Sem Athalia heyrde Hꝏreyste Folksins, þess sem skundade til, og lofade Kongenn, þa gieck hun til Folksins j DROttins Hws.

13. Og hun sꝏ, og siꝏ, þa stood Kongurenn j sijnum Stad, j Inngangenum, og þeir yppurstu, og Basunurnar j kringum Kongenn, og allt Landsfolked var gladt, og bliesu j Basunurnar, og Saungvararner med allrahanda Streingialeik tilsetter ad lofa. Þa reif hun j sundur sijn Klæde, og sagde, Uppreisn! Uppreisn!

14. Enn Jojada Prestur gieck wt med þeim ædstu Hundradshøfdingium, sem voru yfer Hernum, og sagde til þeirra, Leided hana af Hwsenu wt yfer Gardenn, og hvør sem henne filger epter sa skal deydast med Sverde. Þvi Presturenn baud ad Menn skylldu ecke deyda hana j Hwse DROttins.

15. Enn þeir løgdu Hendur a hana, og þa þeir komu fyrer Hesta Portsins Inngꝏng, hia Kongsins Hwse, þar aflijfudu þeir hana.

III. 16. Og Jojada giørde eirn Sꝏttmꝏla mille sijn, og Almwgans, og Kongsins, ad þeir skylldu vera DROttins Folk.

17. Epter þad gieck allt Folk jnn j Hws Baals, og brutu þad nidur, þeir brutu og j sundur hans Alltare, og Bijlæte, og drꝏpu Mathan, Baals Prest fyrer Alltarenu.

18. Og Jojada tilsette Embætte j Hwse DROTTins, ꝏ medal Prestanna, og Levitanna, so sem David hafde ꝏdur skickad j Guds Hwse, ad færa DROTTne Brennefoorner, eins og skrifad stendur j Moses Løgum, med Fagnade, og Lofsaungum, sem David hafde dicktad.

19. Hann sette og Dyraverde fyrer Ported ꝏ DROttins Hwse, ad ecker Ohreint skyllde koma jnn a nockurn Hlut.

20. Og hann took þa Yppurstu yfer Hundrad, og þa Megtugu, og Stiornarana a medal

medal Folksins, og allann Lands Lydenn, og leidde Kongenn ofann fra DROTTins Hwse, og færdu hann jnn um þad Hæfa Port til Kongsins Hwss, og lietu Kongenn setiast a Kongs Stoolenn,

21. Og allur Landsins Almwge var gladur, og Borgenn stillteſt, enn Athalia vard drepenn med Sverde.

# XXIV. Capitule.

(I) Hversu ad Joas Konungur i Juda var Gudhræddur. (II) Sijdan Ogudhræddur. (III) Hans Straff; og (IV) Daude.

I. Joas var Siø æra gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Fioru-tijge ær j Jerusalem. Hans Mooder hiet Zibia af BerSeba.

2. Og Joas giorde þad sem DROttne vel þocknadeſt, so leinge sem Jojada Preſtur lifde.

3. Og Jojada Kvongade hann Tveimur Kvinnum, og hann ætte bæde Syne, og Dætur.

4. Þar epter took Joas sier fyrer Hendur ad endurbæta DROTTins Hws,

5. Og hann safnade saman Preſtum, og Levitum, og sagde til þeirra, Fared wt til allra Stada Juda, og samansafned Peningum af øllum Jsrael, til ad endurbæta ydars Guds Hws ærlega, og flyted ydur ad giora þad. Enn Levitarner høfdu øngvann Flyter.

6. Þa kallade Kongurenn a Jojada þann Ypparſta, og sagde til hans, Pvi giæter þu ecke ad Levitunum, ad þeir innfære Skattenn af Juda, og Jerusalem, so sem Moses DROttins Þienare skickade, ad Mann skyllde samansafna j Jsrael, til Vitnisburdarens Tialldbwdar?

7. Þviad su Ogudlega Athalia, og hennar Syner, hafa ofann rifed Guds Hus, og allt þad sem helgad var j Hwse DROTTINS, þad hafa þeir giort upp aptur til Baalim.

8. Þa baud Kongurenn, ad þar skyllde giora eina Kiſtu, og hun skyllde setiaſt j Ported, utann fyrer Hwse DROttens.

9. Og þeir lietu wthroopa j Juda, og Jerusalem, ad jnn skyllde flytiaſt sa DROttins Skattur sem Jsrael var uppa lagdur j Eydemørkenne af Mose Guds Þienara.

10. Þa gloddust aller Høfdingiarner, og allt Folked, og færde, og kaſtade hønum j Kiſtuna, þar til ad hun var full.

11. Enn sem sa Tijme kom, ad Menn skylldu Kiſtuna frammbera, fyrer Levitana, epter Kongsins Skipan (þa þeir sæu, ad þar voru mikler Peningar j,) kom Kongsins Skrifare, og sa sem hafde Bifalning af þeim Ypparſta Preſte, og helltu Fienu wr Kiſtunne, og bæru hana sijdan aptur j sinn Stad, so giordu þeir alla Daga, so ad þeir søfnudu morgum Peningum tilsamans.

12. Enn Kongurenn, og Jojada, gæfu Fied Arfidismønnunum, sem ſtoodu fyrer Arfidenu j DROTTins Hwse, þeir leigdu Steinhoggvara, og Triesmide, til ad endurbæta DROTTins Hws, og Meiſtara a Jaarn, og Kopar, ad endurbæta Hws DROTTins.

13. Og Erfidis-Mennerner erfidudu, so ad Bootenn a Verkenu hafde Frammgang, fyrer þeirra Hønd, og þeir giørdu Guds Hws med øllu ferdugt, og vel til Reika.

14. Enn sem þeir høfdu þad fullkomnad færdu þeir Kongenum Peningana, og Jojada, þa sem af geingu. Af hvorium Menn giørdu Kier j Hws DROTTins, Kier til Þionuſtunnar, og til Brenne-Offursins, Skeider, Gullkier, og Silfurkier, og þeir offrudu Brennefoornum alla Tijma j Drottins Hwse, so leinge sem Jojada lifde.

15. Og Jojada vard gamall, og Velalldradur, og doo, og hann var Hundrad og Þriætijge æra þa er hann doo.

16. Og þeir jørdudu hann j Davids Stad, medal Konganna, þviad hann hafde giort vel vid Jsrael, og vid GUD, og hans Hws.

II. 17. Enn sem Jojada var andadur þa komu Hofdingiar af Juda, og tilbꝍdu Kongenn, Þa hlydde Kongurenn þeim ad.

18. Og þeir yfergꝍfu Hus DROttins Guds þeirra Fedra, og þionudu Lundum og Afgudum. Þa kom Reide yfer Juda og Jerusalem, sokum þessarar þeirrar Syndar.

19. Og hann sende Spꝍmenn til þeirra, so þeir skylldu snua sier til DROTTins, og þeir vitnudu fyrer þeim, Enn þeir villdu ecke heyra þad.

20. Og Guds Ande iklæddest Sacharia, syne Jojada Kiennemanns, hann gieck upp yfer Folked, og sagde til þeirra, So seiger Gud, Þvi yfertroded þier DROTTins Bodord? þad mun ecke luckast ydur, Þviad þier hafed yfergiefed DROTTinn, so mun hann og yfergiefa ydur aptur.

21. Enn þeir giordu Samtøk j moote honum, og gryttu hann j Hel, epter Kongsins skipan, j Gardenum hiꝍ DROTTins Huse.

22. Og Kong Joas minntest eige a þa Miskun, sem Jojada, hans Fader, veitte honum, helldur drap hans son. Enn sem hann deyde, þa sagde hann, DROTTinn mun siꝍ, og utkrefia þad.

III. 23. Enn sem þad Aar var ute þa foor Strijds Her upp fra Syria, og þeir komu j Juda og Jerusalem, og fordiorfudu alla þa yppurstu Hofdingia a medal Folksins, enn sendu allt þeirra Herfꝍng til Kongsins j Damasco,

24. Þviad Magt þeirra Syrlendsku kom med fꝍa Menn. Þa gaf DROTTinn eina miøg stoora Magt j þeirra Hond, þviad þeir høfdu yfergiefid DROTTinn Gud sinna Fedra, Og þeir strøffudu miøg Joas.

IV. 25. Og þa þeir fooru fra hønum, lietu þeir hann epter, j miklum Siukdome. Og hans Þienarar bundu Sꝍttmꝍla a moote hønum, vegna Bloods Barna Jojada Kiennemanns, og drꝍpu hann j hans Sæng, og hann doo, og var jardadur j Davids stad, Enn þo ecke a medal Konganna Grafa.

26. Enn þesser voru þeir sem þau Samtøk bundu a moote hønum, Sabad, son Simeath, hinnar Ammonitisku, og Josabad, son Simrith, hinnar Moabitisku.

27. Enn hans Syner, og su Summa sem saman var søfnud under hønum, og Guds Hußbigging, Siꝍ, þad er skrifad j Konganna Historiu Book, og hans son Amazia vard Kongur j hans stad.

# XXV. Capitule.

(I) Um Gudhrædslu Amazia Kongungs j Juda. (II) Hans Gudleyse; (III) Drambseme; og (IV) Landflotte.

I. Amazia var Fimm og Tuttugu Aara gamall þa hann vard Kongur; og hann rijkte Niju Aar og Tuttugu j Jerusalem, Hans Moder hiet Joadan, af Jerusalem.

2. Og hann giorde þad sem DROTTne vel þocknadest, enn þo ecke af ollu Hiarta.

3. Enn sem hann var stadfestur j sijnu Kongsrijke þa sloo hann sijna Þienara j hel, þa sem høfdu dreped Kongenn hans Fodur.

4. Enn þeirra Børn drap hann ecke, þviad so stendur þar skrifad j Løgmꝍlenu, j Moses Book, þar ad DROTTinn bydur, og seiger, *Fedurner skulu eige deya fyrer Børnenn, eige helldur Børnenn fyrer Fedurnar, helldur skal hvør deya fyrer sijna Synd.

*5 B. Mos. 24, 16.

5. Og Amazia samankallade Juda, og skickade þa epter þeirra Fedra Huse, epter Hofdingiunum yfer Þusund, og yfer Hundrad, medal alls Juda og BenJamin, og hann reiknade þa frꝍ Tuttugu Aarum, og þar yfer, og fann medal þeirra Þriu Hundrud Þusund utvaldra, sem fꝍrer voru til Bardaga, og bera kunnu Spioot og Skiølld.

6. Þar ad auk took hann til sijn af Jsrael Hundrad Þusund sterkra Strijdsmanna, fyrer Hundrad Centener Silfurs.

7. Enn þar kom eirn Guds Madur til hans, og sagde, Þu Kongur, Lꝍt ecke Jsraels Her koma med þier, þvi DROTTinn er

er ecke med Jsrael, eige helldur med ollum Bornum Ephraims.

8. Pvi ef þu kiemur j Bardaga til ad syna Dirfsku þijna, þa mun Gud lꝍata þig falla fyrer þijnum Ovinum, þviad Magtenn stendur til Guds, ad hiꝍalpa, og so til ad lꝍata falla.

9. Amazia sagde til Guds Manns, Hvad skal þa giora af þeim Hundrad Centener, sem eg hefe giefid Strijdsmonnunum af Jsrael? Guds Madur svarade, DROttenn hefur meira enn þad er, þad sem hann kann ad giefa þier.

10. Pa adskilde Amazia þad Strijdsfolk sem til hans var komid af Ephraim, ad þeir fære til sijns stadar. Pa urdu þeir hardla reider vid Juda, og fooru heim aptur til sijns stadar, med mikillre Reide.

11. Og Amazia vard hughraustur, og færde ut sitt Folk, og foor ut j Salltdalenn, og sloo þar Tiju Pusund af Bornum Seirs.

12. Og Born Juda tooku til Fꝍanga af þeim Tiju Pusund Manna lifande, og leiddu þa uppa eina Fialls Gnypu, og þeir hrundu þeim ofan fyrer Fialls gnypuna, so þeir brustu aller j sundur.

13. Enn þad Strijdsfolk sem Amazia liet fara heim aptur, ad þad fære ecke j Strijd med hans Folke, þad settest nidur um Borger Juda, allt frꝍa Samaria og til Beth Horon, og slou af þeim þriar Pusunder Manns, og tooku þar miked Herfꝍang.

II. 14. Nu sem Amazia kom aptur frꝍa þvi slage sem hann veitte þeim Edomitum þa færde hann med sier Afgude sona Seir, og sette þa sier til Guda, og tilbad fyrer þeim, og brennde fyrer þeim Reykelse.

15. Pa gramdest DROttins Reide yfer Amazia, og sende til hans eirn Spꝍamann, hvor ed sagde til hans, Pvi leitar þu þessara Folks Guda, sem ad eige gꝍatu hiꝍalpad sijnu Folke af þinne Hende?

16. Enn sem hann talade vid hann þa sagde hann til hans, Hafa Menn sett þig til Kongs Rꝍadgiafa? Lꝍat af, þvi villtu verda sleigenn? Pa hætte Spꝍamadurenn, og sagde, Merke eg vel, ad Gud hefur ꝍasett sier ad fordiarfa þig, first þu giorder þetta, og villt eige adhlyda mijnum Rꝍadum.

III. 17. Amazia, Juda Kongur, afriede þad, og sende burt til Joas, sonar Joachas, sonar Jehu, Jsraels Kongs, og liet seigia honum, Kom, og siꝍae hvor ockar annan.

18. Enn Joas, Jsraels Kongur, sende til Amazia, Kongs Juda, og liet seigia honum, Pyrnebuskurenn j Libanon sende til Cedrus j Libanon, og liet honum seigia, Gief þijna Dottur mijnum syne til Kvinnu, Enn Villudyrenn j Libanon hlupu yfer um Pyrnebuskenn, og trꝍadu hann under.

19. Pu hugsar, Siꝍa, eg hefe sleiged þa Edomita, af þvi metnast þitt Hiarta, og þu leitar epter hroosun. Nu, vert þu þar heima, eda þvi leitar þu epter Olucku, so þu faller, og Juda med þier?

20. Enn Amazia hlydde honum ecke, Pvi þad skiede af Gude, ad þeir skylldu giefast j hendur, fyrer þad þeir hofdu leitad Edomita Guda.

21. Pa foor Joas, Jsraels Kongur, upp, og þeir sꝍau hvor annann, hann og Amazia, Kongur Juda, j BethSemes, sem liggur j Juda.

22. Enn Juda fiell fyrer Jsrael, og flyde hvor til sinna Heimela.

23. Enn Amaziam, Juda Kong, took Joas, Joachas son, Jsraels Kongur, j Beth Semes, og flutte hann til Jerusalem, Og hann nidur braut Murenn j Jerusalem, allt frꝍa Ephraims Porte, og allt ad Hyrningar Portenu, fiogur Hundrud ꝍalna langt.

24. Hann took og j burt allt Gull og Silfur, og oll Kier, þau sem voru fyrer hende j Guds Huse, hiꝍa ObedEdom, og j Fiesioodum j Kongsins Huse, og flutte Bornenn j Gisling med sier, j Samariam.

25. Og Amazia, son Joas, Kongur Juda, lifde Fimmtan Aar epter dauda Joas, sonar Joachas, Jsraels Kongs.

26. Enn hvad meira er ad seigia af Amazia, bæde þad firsta og sijdarsta, Sioa, þad er skrifad j Book Juda og Israels Konga.

IV. 27. Enn froa þeim Tijma, sem ad Amazia gaf sig frao DRottne, þa giørdu þeir Samband j moote hønum, j Jerusalem, enn hann flude til Lachis, þa sendu þeir epter hønum til Lachis, og droapu hann þar.

28. Og fluttu hann a hestum, og groofu hann hioa sijnum Fedrum j Borg Juda.

## XXVI. Capitule.

(I) Rijkes Stiorn Usias; (II) Hans Sigur; (III) Lijfþrot.

1. Þa took allur Lydur Juda Usiam, hann var Sextan Aara gamall, og settu hann til Kongs j sijns Fodurs Stad Amazia.

2. Hann uppbiggde Eloth, og kom henne aptur under Juda, epter þad Kongurenn var sofnadur med sijnum Fedrum.

3. Usia var Sextan Aara þa hann vard Kongur, og hann rijkte tvø og Fimmtijge Aar j Jerusalem. Hans Moder hiet Jechalia, af Jerusalem.

4. Og hann giørde þad sem DRottne vel lijkade, eins og hans Fader Amazia hafde giort.

5. Og hann leitade Guds, so leinge sem Sacharia lifde, eirn Lærare j Guds (a) Sioonum, og so leinge sem hann leitade DROTTins, þa liet Gud vel luckast fyrer hønum.

(a) (Sioonum) Sioner eru Spaadomar, Og er Meiningenn, ad Sacharias hafe vered lærdur j Mose og Spaamønnunum, j Samuel, David, Gad, og ødrum fleyrum.

II. 6. Þvi hann foor ut og strijdde moot þeim Philisteis, og nidur braut Murenn j Gath, og Murenn j Jabne, og Murenn j Asdod, enn uppbiggde Stade j kringum Asdod, og medal Philisteanna,

7. Þvi Gud hioalpade hønum j moote Philisteonum, moote þeim Arabis, moote þeim j GurBaal, og moote þeim Meuniter.

8. Enn Ammonitar goafu Usia Goafur, og hann vard nafnfrægur, allt þar til maun kiemur j Egyptaland, þvi hann efldest meir og meir.

9. Usia biggde Turn j Jerusalem, hioa Hornporte, og Dalporte, og hioa ødrum Hornum, og giørde þa sterka,

10. Hann biggde og Kastala j Eydemørku, og groof marga Brunna, þvi hann hafde miked Fie, bæde j Dalnum, og a Sliettunne, og Akur-Menn og Vijngardz-Menn a Fiøllunum, og hioa Charmel, þvi hann hafde mikla lyst a Akurvinnu.

11. Og Usia hafde Magt til strijds, sem foru j Bardaga, af Strijdsmønnum, reiknudum j talid under Jeiels Skrifara, og Maesia Embættismanns hende, under Hanania hende, Kongsins ædsta Strijds Hofdingia.

12. Og þeirra Yppurstu Fedra tala, af sterkum Strijdsmønnum, voru Tvær Þusunder Sex Hundrud.

13. Og under þeirra Hende var Strijds Herenn, Þriu Hundrud Þusund, Sio Þusund, og Fimm Hundrud, sfickanleger til Strijds, ad fara ut j strijd, ad hioalpa Kongenum j moot Ovinum.

14. Og Usia fieck þeim fyrer allann Herenn, Skyllde, Spiot, Hioalma, Bryninur, Boga, og Steinsløngur.

15. Og hann giørde j Jerusalem kunstugar Vijgvielar, sem ad vera skyllde a Turnum, og a Hornum, til ad skiota wt med Pijlum, og stoorum Steinum, og hans Rikte barst vijda wt, þvi hønum var sierlega hioalpad, þar til ad hann vard megtugur.

III. 16. Og sem hann var megtugur ordenn þa metnadest hann j sijnu Hiarta, sier til Glotunar, þvi hann forsoa sig jmoote DROttne sijnum GUde, og gieck jnn j Mustere DROTTins, ad giefa Reykelse, a Reykelsis Alltarid.

17. Enn Asaria Kiennemadur gieck epter honum, og aattatijge DROttins Kiennemenn med honum, hrauster Menn,

18. Og stoodu jmoote Usia Konge, og sǫgdu til hans, Usia! Eige ber þier ad giefa DROttne Reykelse, helldur Prestunum Aarons Bornum, þeir sem eru helgader Reykelsed ad giefa. Gacktu vt af Helgedomenum, þviad þu misgiorer, og þad verdur þier eingenn Heidur fyrer GUde DROttne.

19. Enn Usia vard reidur, og hann hiellt a einu Reykelsis Kiere j sinne Hende, ad giefa Reykelse. Og sem hann mǫglade moote Prestunum, kom vt Lijkþraa j hans Enne fyrer Prestunum, j Hwse DRottins, framme fyrer Reykelsis Alltarenu.

20. Og Asaria Kiennemannahǫfdinge snere Hǫfdenu til hans, og aller Prestarner, og sioa, þa var hann Spitelskur j sijnu Enne, og þeir hrundu honum þar fra. Hann flytte sier og so sialfur ad ganga vt, þvi hans Plaaga var af DROTTne.

21. So vard nu Kong Usia Lijkþraar allt til sijns Dauda, og hann bioo j einu sierlegu Hwse Lijkþraar, þvi hann var vtrekenn af DROTTins Hwse. Og Jotham, hans Son, saa fyrer Kongsins Hwse, og dæmde Folked j Landenu.

22. Hvad sem meira er ad seigia um Usiam, bæde þad Firsta, og Sijdarsta, þad hefur Esaias Spaamadur, Son Amos, uppskrifad.

23. Og Usia sofnade burt med sijnum Fedrum, og þeir grofu hann hiaa hans Fedrum, j Akrenum hiaa Konganna Leidum, þvi þeir sǫgdu, Hann er Lijkþraar. Og Jotham, hans Son, vard Kongur j hans Stad.

## XXVII. Capitule.

Um Jotham Konung i Juda, og hans Rijkes Stiorn.

Jotham var Fimm og Tuttugu aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Sextan aar j Jerusalem, hans Moder hiet Jerusa, Dootter Zadoks.

2. Og hann giorde þad sem DROttne vel lijkade, so sem hans Fader Usia hafde giort. Utann þad, ad hann gieck ecke j Guds Mustere, og Folked Mannspillteſt enn.

3. Hann uppbiggde þad Hæsta Port a Hwse DROTTins, og hann reiste mikla Bigging yfer Mwrnum Ophel.

4. Og hann uppbiggde þa Stade a Juda Fialle, hann biggde og Slot, og Turna, j Skoogunum.

5. Og hann bardest vid Kong Ammons Barna, og vann Sigur a þeim, so ad Ammons Born gaafu honum þad sama aar Hundrad Centener Silfurs, Tiju Þusund Cor Hveites, og Tiju Þusund Cor Biggs. A þvi ǫdru aare gaafu Ammons Born honum slijkt hid sama, og so lijka a þvi Pridia aare.

6. So var Jotham megtugur, þvi hann skickade vegum sijnum Riettelega fyrer DROTTne sijnum GUde.

7. Enn hvad meira er ad seigia um Jotham, og af ǫllum hans Bardǫgum, og hans Vegum, Sioa, þad er skrifad j Israels og Juda Konga Book.

8. Hann var Fimm aara og Tuttugu þa hann vard Kongur, og rijkte Sextan aar j Jerusalem.

9. Og Jotham sofnade med sijnum Fedrum, og þeir jordudu hann j Davids Stad, enn Achas hans Son vard Kongur j hans Stad.

## XXVIII. Capitule.

Um Achas Konung i Juda, og hans Rijkesstiorn.

Achas var Tvijtugur ad Alldre þa hann vard Kongur, og hann rijkte Sextan aar j Jerusalem, og hann giorde ecke þad, sem DROTTne vel þocknadest, so sem David hans Fader.

2. Helldur gieck hann a Israels Konga Vegum. Hier ad auk giorde hann Baalim Minder steyptar.

3. Og hann gaf Reykelse j Dal Sona Hinnom, og hann brennde sijna Syne j Ellde, epter Heidingianna Svivirdingum, hvoria DROTTinn hafde vtreked, fyrer Israels Bornum.

4. Og hann offrade, og bar Reykelse a Hædonum, og under ollum bloomgudum Eikum.

5. Þar fyrer gaf DROTTinn hans GUd hann j Kongsins Hond af Syria, og þeir sloou hann, og fluttu burt mikenn Fiolda af hans Fongudum, og høfdu þa til Damascum. Hann var og giefenn under Kongsins Hond af Israel, so hann veitte honum eitt stoort Slag.

6. Þviad Pekah, Son Remalia, sloo j Juda Hundrad og Tuttugu Þusunder a einum Deige, sem voru aller sterker Menn, fyrer þvi, ad þeir fyrerlietu DROTTINN þeirra Fedra GUd.

7. Og Sichri, eirn Volldugur Madur af Ephraim, drap Maeseia, Son Kongsins, og Asrikam, þann ypparsta Hofdingia fyrer Kongsins Hwse, og Elkana þann sem nærstur var Kongenum.

8. Og Israelis Born fluttu Herteknа j burtu sijna Brædur, Tvo Hundrud Þusund Kvinnur, Syne, og Dætur, og tooku þarmed miked Herfoang fra þeim, og fluttu þad Herfoang til Samariam.

9. Og þar var eirn Spaamadur DRottins, sem hiet Oded, hann gieck vt jmoote þeim sama Her, sem kom til Samaria, og sagde til þeirra, Sioa, First ad DROTTINN ydra Fedra GUd er ordenn reidur yfer Juda, þa gaf hann þa j ydar Hendur. Enn þier hafed so grimmlega dreped þa, so þad tekur upp j Himenenn.

10. Nu hugsed þier ad þryckia under ydur Juda Born, og Jerusalem, til Þræla, og Amboatta. Er þar þa ecke Skulld hioa ydur jmoote DROTTne ydrum GUde?

11. Þar fyrer hlyded mier nu, og færed þa Herteknu aptur tilbaka, þa sem þier hafed j burt leidt af ydrum Brædrum, þviad DROTTins Reide er grom yfer ydur.

12. Þa tooku sig upp nockrer af þeim Ypperstu, af Bornum Ephraims, Asaria, Son Johanan, Berechia, Son Messillemoth, Jehiskia, Son Sallum, og Amasa, Son Hadlai, jmoote þeim sem komu fra Bardaganum,

13. Og sogdu til þeirra, Eige skulud þier færa þa herteknu jnn hingad, þvi þier þenked ecke utann alleina Skulld yfer oss fyrer DROttne, so ad þier giored vora Synd og Skulld þess meire. Þviad Skullденn er ofmiog stoor, og Reidenn yfer Israel upptendrast.

14. Þa liet Strijdsfoolked all Foangana lausa, og logdu Herfoanged nidur fyrer Hofdingiana, og fyrer allann Sofnudenn.

15. Þa uppstoodu þeir Menn, sem eru a Nafn nefnder, og tooku þa Foangana, og þa alla sem nakter voru af þeim, klæddu þa af Herfoangenu, þeir klæddu þa, og skæddu þa, og gaafu þeim bæde Mat, og Drick, og smurdu þa, og alla þa, sem veiker voru fluttu þeir a Osnum, og færdu þa til Jericho, til þess Palmavidar Stadar, hioa þeirra Brædrum, og þeir komu aptur j Samariam.

16. A þeim sama Tijma sende Achas Kongur til Konganna af Assur, ad þeir skylldu veita honum Lid.

17. Þvi þeir Edomitar komu jnn aptur, og sloou Judam, og fluttu nockra j burt.

18. Og Philistei logdust jnn j Stadena a Sliettlendenu, sunnan til a moote Juda, og unnu BethSemes, Aialon, Gederoth, og Socho med hennar Dætrum, og Thimna med hennar Dætrum, og Gimso med hennar Dætrum, og biuggu þar.

19. Þviad DRottinn nidurþryckte Juda, fyrer Skulld Achas, Juda Kongs, Sokum þess, ad hann giorde Juda (a) Nakenn, og hann misgiorde a mote DRottne.

(a) (Nakenn) Þesse Nakleike var þad, ad Folked lifde

lifde ecke under Gude, epter hans Orde, helldur dijrdkade GUd epter sialfs sijnum Potta, so sem Aaron giørde Folkid Naked.

20. Og Tiglath Pilnesser, Kongurenn af Assur, kom til hans, setteſt um hann, og styrkte hann ecke.

21. Þvi Achas skipte Hwſe DRottins, og Kongsins Hwſe, og Hofdingianna, ad hann giæfe Kongenum af Assur, enn þad hiaalpade honum ecke par.

22. Hier ad auk j Neydenne, jook Kong Achas yfertrodslur sijnar fyrer DRottne.

23. Og offrade til Gudanna j Damasco, sem hann hofdu slegid, og sagde, Kongsins Guder af Syria hiaalpudu þeim, þvi vil eg þeim offra, so þeir hiaalpe mier eirnenn, Þar þeir þo urdu honum, og ollum Israel, eitt Fall.

24. Og Achas safnade Kieronum tilsamans j Guds Hwſe, og safnade Kieronum j Guds Hwſe, og luckte Dyrnar a Hwſe DRottins, og giorde sier Alltare a hvørre Hyrningu j Jerusalem.

25. Og j Borgum Juda giørde hann Hæder, hier og hvar, til ad giefa annarlegum Gudum Reykelse, og reitte til Reide GUd sinna Fedra.

26. Hvad meira er ad seigia um hann, og um alla hans Vegu, bæde þa Firstu, og Sijdurstu, Sia, þad er skrifad j Juda og Israels Konga Book.

27. Og Achas sofnade med sijnum Fedrum, og þeir groofu hann j Borgenne Jerusalem, enn eige færdu þeir hann a medal Grafa Israelis Konga. Og hans Son Ezechias vard Kongur j hans Stad.

## XXIX. Capitule.

Um Rijkes Stiorn og Gudhrædslu Ezechiæ Konungs j Juda.

Ezechias hafde Fimm um Tvijtugt þa hann vard Kongur, og rijkte niju Aar og Tuttugu j Jerusalem, hans Moder hiet Abia, Dootter Zachariæ.

2. Og hann giørde þad sem DROTTne vel þocknadeſt, so sem hans Fader David.

3. A Firsta Maanade þess Firsta Aars sijns Kongs Rijkis liet hann upp Dyrnar a Hwſe DRottins, og giorde þær rammbyggdar.

4. Og hann leidde Kiennemenn, og Levitana, jnn þangad, og samansafnade þeim a þad breida Stræte oa mot Austre.

5. Og sagde til þeirra, Þier Levitar heyred mier! Helged ydur nu, so ad þier meiged og helga DROTTins Guds ydars Fedra Hus, og bered þad ohreina ut af Helgedomenum.

6. Þviad vorer Fedur hafa misgiort, og giort þad sem DRottne vorum Gude jlla lijkade, og hafa yfergiefed hann. Þvi þeir sneru sijnu Andlite fraa DROTTins Hybyle, og sneru sijnu Bake vid þvi,

7. Og hafa læst Dyronum a Forhusenu, og utslockt Lampana, og giordu eckert Reykelsis Verk, ei helldur Brennefoorner Israels Gude j Helgedomenum.

8. Og sokum þvilijks er DROttins Reide komenn yfer Juda og Jerusalem, og hann hefur giefed þa j Sundurdreifing, og j Forøydslu, So ad Menn blystra ad þeim, so sem þier siaaed med ydrum Augum.

9. Þviad, Siaaed, þess vegna eru vorer Fedur fallner fyrer Sverde, vorer Syner, Dætur, og Kvinnur j burt fluttar.

10. Nu hefe eg þad j Sinne, ad giøra eitt Saattmaal vid DROTTinn Israels Gud, so ad hans Reide og Grimmd snue sier fraa oss.

11. Nu mijner Syner! fared eige villt, þviad ydur hefur DROttinn utvaled, ad þier skulud standa fyrer honum, og ad þier skulud vera hans Þienarar, og giefa Reykelse.

12. Þa tooku Levitarner sig upp, Mahath, son Amasai, og Joel, son Asaria, af Bornum Kahaths. Og af Bornum Merari, Kis, son Abdi, og Asaria, son Jehaleleel. Enn af Bornum Gerson, Joab, son Simma, og Eden, son Joah.

13. Og

13. Og af Bornum Elizaphans Simri og Jeiel. Og af Assaphs Bornum, Sacharia, og Mathania.

14. Og af Bornum Hemans, Jehiel og Semei. Og af Bornum Jedithun, Semaea, og Usiel.

15. Og þeir samansøfnudu sijnum Brædrum, og helgudu sig, og geingu jnn epter Kongsins Bode, af DROttins Orde, ad hreinsa Hus DROttins.

16. Og Kiennemennerner geingu jnn j jnnsta Hluta af Hwse DROTTins, ad hreinsa, og bꝏru allann þann Ohreinleika (sem fundenn var j Mustere DROTTins) wt j Gardenn, fyrer Hwse DRottins, enn Levitarner tooku þad upp, og bꝏru wt j Lækenn Kidron.

17. Og þeir tooku til a þeim Firsta Deige þess Firsta Mꝏnadar ad helga sig, og a þeim ꝏttunda Deige j sama Mꝏnude geingu þeir jnn j DRottins Forhwꝏs, og helgudu Hws DROTTins j ꝏtta Daga, og fullkomnudu þad a Sextanda Deige j þeim Firsta Mꝏnade.

18. Og þeir geingu jnn fyrer Kong Ezechiam, og segdu, Vier høfum hreinsad allt Hwꝏs DRottins, Brenneoffurs Alltared, og øll þess Verkfære, Borded, Skodunarbraudenn, og øll þau Verkfære er þar til heyra.

19. Og øll Kierenn sem Kong Achas burtkastade, þa hann var Kongur, þa hann syndgade, þau høfum vier tilbwed og helgad, Sioa, þau eru fyrer Alltare DROTTins.

20. Þa took Kong Ezechias sig snemma upp, og samansafnade þeim Yppurstu j Stadnum, og gieck upp j Hwꝏs DROTTins.

21. Og leiddu þar framm ad Siø Uxa, og Sio Hrwꝏta, Sio Lomb, og Sio Hafra, til Synda-Offurs, fyrer Kongs Rijked, fyrer Helgedomenn, og fyrer Juda. Og hann sagde til Prestanna, Aarons Barna, ad þeir skylldu færa Foorner yfer Alltare DRottins.

22. Þa slꝏtrudu þeir Uxum, og Prestarner tooku Blooded, og stocktu þvi a Alltared, þeir slꝏtrudu og Hrwꝏtonum, og stocktu Bloodenu a Alltared, og þeir slꝏtrudu Lombunum, og stocktu Bloodenu a Alltared.

23. Og þeir leiddu Hafrana framm til Syndaoffurs fyrer Kongenn, og Almwꝏgann, og þeir logdu sijnar Hendur yfer þa.

24. Og Prestarner slꝏtrudu þeim, og hreinsudu þeirra Blood a Alltarenu, til ad forlijka allann Israel. Þviad Kongurenn hafde bijfalad ad giøra Brenneoffur, og Syndaoffur fyrer allann Israel.

25. Og hann skickade Levitana j DRottins Hwꝏse, med Cymbalis, Psollturum, og Horpum, so sem David hafde þad bifalad, og Gad, Kongsins Siꝏande, og Nathan Spꝏmadur, þvi þad var DROTTins Bod fyrer hans Spꝏmenn.

26. Og Levitarner stoodu med Streingiahliodfærum Davids, og Prestarner med Basunurnar.

27. Og Ezechias baud þeim ad giøra Brenneoffur a Alltarenu. Og a þeim sama Tijma, þa þeir tooku til ad færa Brenneoffur, þa upphofst og Saungur DROttins, og Basunurnar, og a allrahanda Streingleikum Davids Israels Kongs.

28. Enn allur Almwꝏgenn badst fyrer, og Saungvaranna Saungur, og Trametara Basunur varde allt tilsamans til þess ad Brenneoffred var fullkomnad.

29. Sem nu ad Brenneoffred var fullkomnad þa laut Kongurenn nidur, og aller þeir sem hiꝏ honum voru, og bꝏdust fyrer.

30. Og Ezechias Kongur, med Hofdingiunum, baud Levitunum ad lofa DROTTinn, med Dickt Davids, og Assaphs Siꝏanda, og þeir lofudu med Glede, hneigdu sig, og bꝏdu Hann.

31. Og Ezechias svarade og sagde, Þier hafed nu uppfyllt ydar Hendur DROttne,

Fared nu til, og bered hingad Foorner, og Losgiordar Offur j Hwss DRottins, og Almwgenn færde þangad Foorner, og Losgiordar-Offur, og hvor Madur Brennefoorner af þeirra sioalfviliugu Hiarta.

32. Enn Talann a þeim Brennefoornum sem Almwgenn bar framm, var Siotijge Uxar, Hundrad Hrwtar, og Tvo Hundrud Lomb, og þad allt saman til Brennefoornar DROTTne.

33. Og helgudu Sex Hundrud Uxa, og Þriu Þusund Saude.

34. Enn Prestarner voru of-foaer, so þeir goatu ecke teked Skinned af ollum Brennefoornonum, og þvi tooku þeir Levitana sijna Brædur til sijn, svo leinge sem þesse Þionusta var fullkomnud, og þar til ad Prestarner helgudu sig, þviad Levitana var audvelldara ad helga enn Kiennemennena.

35. Enn Brenne-Offred var miked, med Þackar-Offursins Feitleika, og Drickiar-Offred til Brenne-Offursins, so vard Embætted fullkomnad j Hwse DROTTINS.

36. Og Ezechias gladdest med ollu Folkenu, ad Menn voru ordner tilbwner fyrer GUd, þviad þad skiede so skiootlega.

## XXX. Capitule.

Ezechias Konungur i Juda helldur Poaska.

Og Ezechias sende wt til alls Israels, og skrifade Brief til Ephraim, og Manasse, ad þeir skylldu koma til DROTTins Hwss j Jerusalem, til ad hallda Poaska DROTTne Israels Gude.

2. Kongurenn hiellt og eitt Road vid sijna Hofdingia, og vid allann Sofnudenn j Jerusalem, ad hallda Poaska j odrum Moanude.

3. Þvi þeir goatu ecke hallded þa j þeirre somu Tijd, þviad Kiennemennerner voru ecke noog helgader, so og var ecke Folked helldur komed saman til Jerusalem.

4. Þetta lijkade Kongenum vel, og ollum Sofnudenum.

5. Og þeir tilsettu, ad þad var wthroopad yfer allann Israel, fra BerSeba, og allt til Dan, ad þeir skylldu koma, og hallda DROTTins Israels Guds Poaska j Jerusalem, þviad þeir voru ecke halldner i langa Tijma, so sem skrifad stendur.

6. Og Hlaupararner geingu af stad med Briefum fra Kongsins, og hans Hofdingia hende, um allann Israel og Juda, epter Kongsins Skipan, og sogdu, Þier Israels Born! Snwed ydur aptur til DROTTins Guds Abrahams, Isaacs, og Israels, so mun hann snwa sier til þeirra sem epter eru, þeir sem enn nu eru epter a medal ydar af Kongsins Hondum j Assyria.

7. Vered ecke sem ydar Fedur, og Brædur, hvorier syndgudust moot DROTTne þeirra Fedra Gude, og hann gaf þa til Eydeleggingar, so sem þier sioalfer sioaed.

8. So vered eige nu hardhnackader, so sem ydar Forfedur, helldur giefed DROttne ydar Hond, og komed til hans Helgedoms, sem hann hefur helgad æfinnlega, og þioned DROTTne ydrum Gude, þa mun Grimmd hans Reide snwast fra ydur.

9. Ef þier snwed ydur til DROTTins, þa munu ydar Brædur, og Born, foa Miskunsemd, af þeim sem þa hallda Hertekna, so ad þeir kome aptur j Landed. Þviad DROTTenn ydar GUd er Noadigur, og Miskunsamur, og hann mun ecke snwa sijnu Auglite fra ydur, ef þier snwed ydur til hans.

10. Og þeir Hlauparar geingu fra einum Stad, og til annars, j Lande Ephraim, og Manasse, og allt til Sebulon, enn þeir hæddu, og spottudu þa.

11. Þo voru þeir nockrer sem sig audmyktu, af Asser, Manasse, og Sebulon, og komu til Jerusalem.

12. Og j Juda kom Guds Hond, so hann gaf þeim eitt samhugad Hiarta, ad giora epter Kongsins Bode, og Hofdinganna, wt af DROTTins Orde.

13. Og þar kom ofurmargt Folk tilsamans j Jerusalem, ad hallda þeirra Osyrdu

Brauda Hoatijd, j þeim ødrum Moanade, eirn Mikill Folks Fiølde.

14. Og þeir hiuggu sig til, og nidurbrutu Olltørenn, sem voru j Jerusalem, og burt tooku allt Reykelsins Verk, og køstudu þeim j Lækenn Kidron,

15. Og þeir slaatrudu Paaskunum þann Fiortanda Dag j þeim ødrum Moanade. Og Prestarner, og Levitarner, medkienndu sijnar Skammer, og helgudu sig, og baaru Brennefoorner til DROTTins Hwss,

16. Og þeir stodu j sinne Skipan, so sem heyrde, epter Mose Guds Mans Løgmaale. Og Prestarner støcktu Blodenu af Levitanna Hondum.

17. Þvi þeir voru marger j Søfnudenum sem ecke høfdu helgad sig. Þvi slaatrudu Levitarner Paaskunum fyrer alla þa sem ecke voru hreiner, ad þeir skylldu verda helgader fyrer DROTTNE.

18. Þar var og margt Folk af Ephraim, Manasse, Isaschar, og Sebulon, þeir sem ecke voru hreiner, enn þeir aatu Paaskalambed ecke so sem skrifad stendur. Þviad Ezechias bad fyrer þeim, og sagde, DROttinn sa sem goodur er, hann mun miskunna sig yfer þa,

19. Sem skicka sijnu Hiarta ad leita DROTTins þeirra Fedra Guds, þo ad þeir sieu ecke epter Helgedoomsins (a) hreinleika.

(a) (Hreinleika) Þad er, Gud, aallijtur Hiartad, þegar þvi er velhaattad vid GUd, þa hirder GUd ecke um þa ytre hreinsunena, hvøred eptir Løgmaalenu er Heiløg.

20. Og DROTTinn bænheyrde Ezechiam, og læknade Folked.

21. So hielldu Israelis Børn, þau sem fundenn voru j Jerusalem, Osyrdra Brauda Hoatijd, j Sio Daga, med miklum Fagnade. Og Prestarner, og Levitarner, lofudu Drottinn alla Daga, med DROTTins sterkum Streingialeik.

22. Og Ezechias talade vinsamlega vid alla Levitana, hvorier goodann Skilning høfdu a DROTTne, og þeir neyttu Hoatijdarennar j Sio Daga, og offrudu Packar-Offre, og þøckudu DROTTne þeirra Fedra GUde.

23. Og øllum Almwga kom þad aasamt, ad hallda skyllde enn adra Sio Daga, og þeir hielldu og so þa Sio Daga med fagnade.

24. Þvi Ezechias Kongur Juda gaf eina Upplypting fyrer Almwgann, Þusund Uxa, og Sio Þusund Sauda. Enn Høfdingiarner gaafu fyrer Almwgann eina Upplypting, Þusund Uxa, og Tiju Þusund Sauda, so helgudu sig marger Kiennemenn.

25. Og allur Søfnudur j Juda gladde sig, og Prestarner, og Levitarner, og sa allur Almwge sem komenn var af Israel, og þeir wtlendu sem komner voru af Israels Lande, og þeir sem biuggu j Juda.

26. Og þar var eirn stoor Fognudur j Jerusalem, þvi fra Tijd Salomons, Sonar Davids, Israels Kongs, hafde ecke þvilijkur vered j Jerusalem.

27. Og Prestarner, og Levitarner stoodu upp, og blessudu Folked, og þeirra Rødd bænheyrdest, og þeirra Bæn kom jnn fyrer Hans heilaga Bwstad j Himenenn.

# XXXI. Capitule.

Ezechias (I) hatar Afgudadyrdkara; En (II) Elskar þa Andlegu.

I. Enn sem þetta var nu allt fullkomnad þa foor Israel, sem fannst j Juda Borgum, og sundurbrutu Skwrgodenn, og nidurhiuggu Lundana, og brutu nidur Hædernar, og Ollturenn, j øllum Juda, BenJamin, Ephraim, og Manasse, allt til þess þeir høfdu alldeilis eydelagt þa. Og Israels Børn fooru øll aptur til sinna Gotsa, og sinna Borga.

II. 2. Og Ezechias skickade Prestana, og Levitana j þeirra Skipaner, hvørn epter sijnu Embætte, bæde Prestana, og Levitana, til Brennefoornanna, og Packlætis Foornan-

nanna, ad þeir skylldu þiona, þacka, og lofa, j Herbwdar Dyrum DROTTins.

3. Og Kongurenn gaf sinn Part af sijnu Gotse, til Brenne-Offurs, bæde a Morgna, og a Kvolld, og til Brenne-Offurs, Sabbaths Dagsins, og Nymoanadar, og Hoatijdanna, so sem skrifad stendur j Logmoale DROTTins.

4. Og hann sagde til Folksins, þess sem bio j Jerusalem, ad þeir skylldu giefa Prestonum, og Levitunum, eirn Hlut, til þess, ad þeir mættu þess fastara (a) hallda vid Logmoal DROTTins.

(a) (Hallda) Uppa þad, ad þeir ecke fyrer Brest, og Þarfnan þeirra Upphelldis, og Næringar yrde ad yferaiefa Bækurnar, oa Kienningar, enn leita sinnar Næringar, þvi Ordsins Pienurum oa ad giefast þeirra Upphellde noglega, so þeir meige studera, so sem Nehemias seiger, og Syrach.

5. Og sem þad Ord kom wt, þa gaafu Jsraels Born miked af þeim Firsta Grooda af Korne, Vijne, Vidsmiore, Hunange, og af allshoattadre jnntekt af Morkenne, og þeir færdu þeim miked jn af allrahanda Tijundum.

6. Og Jsraels og Juda Born, sem biuggu j Juda Stodum, færdu og Tijunder af Uxum, og Saudum, og so Tijund af þvi sem helgad var, sem þeir hofdu helgad DROttne sijnum Gude, og giordu hier eina Hrwgu, og þar eina Hrwgu.

7. J þeim Þridia Moanude tooku þeir til ad leggia þetta tilsamans, enn j þeim Siounda Moanude fullkomnudu þeir þetta.

8. Enn sem Ezechias, og Hofdingiarner geingu jnn, og sooau Hrwgurnar, þa lofudu þeir DROTTinn, og hans Folk Jsrael.

9. Og Ezechias spurde Prestana, og Levitana ad, um Hrwgurnar.

10. Enn Asaria, sa ypparste Kiennemadur j Hwse Zadochs, sagde til hans, Fra þeim Tijma sem Menn tooku til ad bera framm Upplyptingar til Hwss DROTTins, þa hofum vier eted, og sadder orded, og þo er enn miked Afgangs. Þviad DROTTinn hefur blessad sitt Folk, þvi er þetta Samansafn afgeinged.

11. Þa baud Kongurenn, ad þar skylldu gioraft Kistur hioa Hwse DROTTins, og þeir tilbiuggu þær.

12. Og logdu þar j Upplyptingarnar, Tijunder, og þad sem helgad var, trwlegana. Og sa Levite sem hiet Chanania var skickadur til eins Hofdingia þar yfer, og Simei, hans Broder, annar.

13. Og Jehiel, Asasia, Nagath, Asahel, Jerimoth, Josabath, Eliel, Jesmachia, Mahath, og Benaia, tilsetter af Chanania, og Simei hans Brodurs hende, epter Kongs Ezechia Skipan. Enn Asaria var Hofdinge j Guds Hwse.

14. Og Core, Son Jemna, sa Levite, Dyravordurenn jmoot Austre, var yfer Guds frivilingum Goafum, ad wtskipta þeim, sem DROttne voru giefnar til Upplyptingar, og yfer þad Allrahelgasta.

15. Og under hans Hende voru þesser, Eden, Miniamin, Jesua, Semaia, Amaria, og Sachania, j Prestanna stodum, ad þeir skylldu giefa þeirra Brædrum, epter þeirra Skickan, þeim minnsta, so sem hinum stærsta.

16. Þar med þeim sem voru reiknader af Karlkine, Þriggia oara gamler, og þadann af elldre, a millum allra þeirra, sem geingu j Guds Mustere, hvor a sijnum Deige, til sijns Embættis, j þeirra Vardhallde, epter þeirra Skickan.

17. Og þeim sem reiknader voru fyrer Prestana, j þeirra Fedra Hwse, og Levitunum fra Tvitugs Alldre, og þar yfer, j þeirra Vardhallde, epter þeirra Skickan.

18. So og þeim sem reiknader voru a millum þeirra Barna, Kvenna, Sona og Dætra, a medal alls Almwgans, þvi þeir helgudu trulega þad Heilaga.

19. Og þar voru Menn med Nafn tilnefnder yfer Born Aarons Prests, a Lande Forstadanna, j ollum Stodum, ad þeir skylldu giefa ollu Karlkine a medal Prestanna,

na, eirn Part, og so lijka øllum þeim sem reiknader voru a millum Levitanna.

20. So giørde Ezechias j øllum Juda, og giørde hvad gott, og riett, og sannarlegt var fyrer DROTTne sijnum GUde.

21. Og j øllum hans Giorningum, sem hann upphoof, j Guds Hwoss Pionustu, epter Logmaalenu, og Bodordunum, ad leita sijns Guds, þad giørde hann af øllu Hiarta, og þvi hafde hann Lucku.

## XXXII. Capitule.

*Ezechias (I) frelsast fra sijnum Ovinum; (II) Verdur Siukur; (III) Metnast; og (IV) Andast.*

I. Epter þessa Giorninga, og Trufkap, kom Senacherib, Kongur af Assyria, og foor inn j Juda, og settest (med Herskyllde) um þær sterku Borger, og þeinkte ad hrifsa þær til sijn.

2. Sem Ezechias saa þad, ad Senacherib kom, og hans Andlit stood til at strijda moot Jerusalem,

3. Pa kom hønum þad aasamt med sijnum Hoffdingium, og Magtar-mønnum, ad þeir skylldu apturbyrgia Vatned af Brunnunum, sem voru utann Borgar, og þeir stirktu hann.

4. Kom þa samann mikell Mannfiølde, og byrgdu aptur alla þa Brunna, og rennande Votn midt j Landenu, og søgdu, Ad Kongarner af Assyria skylldu ecke finna miked Vatn nær þeir kiæme.

5. Og hann hughreystest, og biggde alla Mwra, hvar þeir voru brotner, og giørde Turna þar yfer, og hann biggde enn eirn annann Mwr þar utann fyrer, og stirkte Millo hiaa Borg Davids, og giørde mørg Vopn, og Skiølldu.

6. Og hann sette Hofudsmenn til Strijds hiaa Folkenu, og kallade þa til sijn a þad breida Stræte hiaa Stadarins Porte, og talade hiartnæmelega vid þa, og sagde,

7. Hafed gott Traust, og vered oskielfder. Ottest ecke, og vered ecke hrædder fyrer Kongenum af Assyria, ei helldur fyrer øllum þeim Fiølda, sem med hønum er, þviad sa er meire sem med oss er, helldur enn med hønum.

8. Med hønum er holldlegur Armleggur, enn DROTTinn Vor GUd er med oss, til ad hiaalpa oss, og heya vort Strijd. Og Folked treyste uppa Ord Ezechiæ Kongsins af Juda.

9. Þar epter sende Senacherib, Kongur af Assyria, sijna Pienara til Jerusalem (þvi hann laa fyrer Lachis, og allur hans Strijds Her med hønum,) til Ezechiam, Kongs Juda, og til alls Juda, sem var j Jerusalem, og liet þeim seigia,

10. So seiger Sennacherib, Kongur af Assyria, A hvorium hafed þier Traust, þier sem bwed j þeirre umkringdu Jerusalem?

11. Ezechias tæler ydur med Ordum, ad hann selie ydur j Daudann, Hungur, og Porsta, og seiger, DRottinn Vor GUd mun frelsa oss af hende Kongsins af Assyria.

12. Er hann ecke sa Ezechias, sem j burt hefur teked hans Hæder, og Alltare, og sagt til Juda, og Jerusalem, Fyrer einu Alltare skulud þier tilbidia, og þar yfer Reykelse brenna.

13. Vited þier ecke, hvad eg og mijner Forfedur hafa giørt øllu Folke j Londunum? Hafa nockud Heidingianna Guder j nockrum Londum gietad frelsad þeirra Lond af minne Hende?

14. Hvor er sa aa medal allra þessara Heidingia Guda, sem ad mijner Fedur hafa foreydt, ad þeir hafe kunnad ad frelsa sitt Folk fra minne Hende, so ad ydar GUd skyllde gieta frelsad ydur undann minne Hende?

15. Laated nu ecke Ezechiam svijkia ydur, og laated ydur ecke so tæla med Ordum, og trwed hønum ecke, þvi, ef ad eingenn af øllum Heidingianna og Konganna Gudum gat sitt Folk frelsad af minne, og minna Fedra Hende, þa munu ecke helldur ydar Guder gieta frelsad ydur fra minne Hende.

16. Þar

16. Par ad auk toludu hans Sveinar enn nu meira jmoote Gude DROTTne, og jmoote hans Pion Ezechia.

17. Hann skrifade og Brief til ad hæda DROTTinn Israels GUd, og talade um hann, og sagde, So sem Heidingianna Guder j Londonum hafa ecke frelsad sitt Folk undann minne Hende, so skal eige helldur sa GUd Ezechiæ frelsa hans Folk undann minne Hende.

18. Og þeir hroopudu med Hæreyste, a Gydinga Maal, til Folksins j Jerusalem, sem var uppa Mwrnum, ad giora þa hrædda, og skielfda, so þeir gætu unned Borgena.

19. Og þeir toludu a moote Gude Jerusalems, lijka sem a moote þioodanna Gudum a Jordu, sem ad eru Handaverk Mannanna.

20. Enn Ezechias Kongur, og Esaias Spamadur, Son Amos, þeir bædu jmot, og kolludu upp j Himenenn.

21. Og DROttinn sende eirn Eingel, hvor ed asmæade alla Magtarmenn Hersins, og Hofdingia og Hofudsmenn j Assyria Kongs Herbudum, so hann foor heim aptur j sitt Land med Sneypu. * Enn sem hann gieck jnn j sijns Guds Hus sloou hann þar j hel med Sverde þeir sem komner voru af hans eigenn Lijfe.

*[Jerusalem frelsast fyrer Bæn Esaiæ, og Ezechiæ, 700. arum fyrer Christi Fædingu.]

22. So hialpade DROttinn Ezechia Konge og þeim j Jerusalem, af Hende Senacherib, Kongs af Assyria, og allra annara, og hann (a) vardveitte hann fyrer ollum allt j kring.

(a) (Vardveitte) Svo sem eirn Hyrder verndar sijna Saude og raktar þa, so þeir gonga hingad og þangad til fooburs, so kunnu og þeir j Jerusalem ad gaaga ut og jnn uggalaust, etc.

23. So ad marger bæru DROttne gaafur til Jerusalem, og so Ezechia Juda Konge Gersemar. Og epter þetta vard hann upphafenn fyrer ollum Heidingium.

II. 24. J þann Tijd vard Ezechias Daudsiukur, Og hann bad DROttinn, og hann hiet honum og gaf honum eitt Teikn.

III. 25. Enn Ezechias bitalade ecke epter þvi so sem honum var giefed, þviad hans Hiarta Metnadest. Sokum þess fiell Reide yfer hann, og yfer Juda, og Jerusalem.

26. Enn Ezechias audmykte sig, ad hans Hiarta hafde metnast, so og lijka þeir j Jerusalem, Par fyrer kom Reide DROttins ecke yfer þa, so leinge sem Ezechias lifde.

27. Og Ezechias hafde miog mikel Audæfe og Dyrd, og safnade sier Fiesiodum, af Silfre, Gulle, Gimsteinum, Dyrlegum Kryddum, Skiolldum, og allrahanda kostulegum hlutum.

28. So og Kornhlodur til Kornsins jnntekta, Vijns og Vidsmiors, og Stallhusum, fyrer allshvattadann Fienad, so og Sauda-Hus fyrer Saudfie.

29. Og hann biggde sier Borger, og hafde yferfliotanlegann Fienad Sauda og Uxa, þvi Gud gaf honum miog mikel Audæfe.

30. Hann er sa Ezechias sem byrgde aptur þann hvafa Uppsprettubrunnenn j Gihon, enn veitte honum nidur under, Vestan ad Borg David, þviad Ezechia luckadest allt þad sem hann giorde.

31. Enn þa Hofdingianna Sendemenn af Babylon voru sender til hans, ad spyria hann ad þeim Undrum sem skied hofdu j Landenu, þa yfergaf Gud hann, so ad hann freistade hans, Uppa þad, ad allt þad sem var j hans Hiarta yrde openbert.

IV. 32. Hvad meira er ad seigia um Ezechiam, og hans Miskunsemder, Sia, þad er skrifad j Syn Esaie Spamanns, sonar Amos, j Juda og Israels Konga Book.

33. Og Ezechias sofnade med sijnum Fedrum, og þeir jordudu hann yfer Grofum Davids Barna. Enn allur Juda, og þeir j Jerusalem, gierdu honum virding j hans Dauda, Og hans son Manasses vard Kongur j hans stad.

# XXXIII. Capitule.

Um Rijkes Stiorn (I) Manasses, og (II) Amons, Konunga i Juda.

I. Manasses var Tolf Aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte Fimm og Fimmtijge Aar j Jerusalem.

2. Og giorde þad sem DROttne jlla lijkade, epter Heidingianna Svijvirdingum, hvoria ad DROttinn utrak fyrer Jsraels Bornum.

3. Og hann umsnere sier, og uppbiggde þær Hæder sem hans Fader Ezechias hafde nidurbroted, Hann reiste Baal Alltare, giorde Lunda, og tilbad allann Himensis Her, og þionade þeim.

4. Hann biggde og Alltare j Huse DROttins, um hvort ad DROttinn hafde talad, J Jerusalem skal mitt Nafn vera æfenlega.

5. Hann biggde og Olltorenn j baadum DROttins Hus Forgordum, til alls hæratads Himensins Hers,

6. Og liet sijna syne ganga j giegnum Elld, j Hinnom sona dal. Hann utvalde Daga, og gaf giætur ad Fugla kvake, og framde Galldra, og tilskickade Spaasarar Menn, og Teikna þydara, og giorde margt þad sem DROttni jlla lijkade, ad styggia hann med.

7. Hann sette og Likneske og Afgude, sem hann hafde giora laated j Guds Hus, um hvad ad DROttinn hafde sagt til Davids og Salomons, hans sonar, J þessu Huse og j Jerusalem, hvoria Eg hefe utvaled fyrer ollum Jsraelis Kinkvijslum, vil Eg setia mitt Nafn æfenlega.

8. Og Eg vil eige framar meir laata Jsrael vikia sijnum Fæte af Landenu, hvort Eg skickade Fedrum þeirra, So framt sem þeir hallda sier til ad giora allt þad sem Eg hefe boded þeim, fyrer Mosen, j ollu Logmaalenu, Bodum og Riettindum.

9. Enn Manasses villte Juda, og þa j Jerusalem, so þeir giordu verr enn þeir Heidingiar sem DROTTinn hafde j eydelagt fyrer Jsraels Bornum.

10. Og þa DROTTinn liet tala vid Manasses og hans Folk, þa gaafu þeir ongvar giætur ad því.

11. Þar fyrer liet DROTTinn koma yfer þa Kongsins Hershofdingia af Assyria, þeir settu Manasses j Fiotur, med Jarnbolltum, og bundu hann med Vidium, og fluttu hann j Babylon.

12. Enn sem hann var komenn j þa Angist, þa graatbænde hann DROttinn sinn Gud, og audmykte sig miog fyrer Gude sinna Fedra.

13. Og bad, og saarbænde hann. Þa heyrde hann hans Bæn, og færde hann aptur j Jerusalem j sitt Kongsrijke, Þa þeckte Manasses, ad DROTTinn være Gud.

14. Epter þad uppbiggde hann þann ytsta Mwr um Davids Stad, fraa Vestre til Gihon j Læknum, þar geinged er jnn Fiskported, og allt um kring til Ophel, og giorde hann miog haafann, og sette Hofudsmenn j fasta stade j Juda.

15. Og took j burt þa annarlega Gude, og þau Skurgod ur Huse DROTTins, og oll Alltare, þau hann hafde biggt a DROttins Hus Fialle, og j Jerusalem, og kastade þeim ut fyrer Borgena.

16. En Alltare DROttins reiste hann, og offrade þar a þackar-Offur, og Lofgiordar Offur, og baud Juda, ad þeir skylldu þiona DROttne Jsraels Gude.

17. Enn þo offrade Folked a Hædunum samt, enn þo DROttne Gude sijnum.

18. Hvad sem meira er ad seigia um Manasses, og um hans Bæn til hans Guds, og um Ord þeirra Siaandanna sem toludu vid hann j Nafne DROttins Jsraels Guds, Sioa, þad er a medal Jsraels Konga Giorninga.

19. Og

19. Og hans Bæn og Akall, og hans allar Synder og Misgiorningar, og þeir Stader a hvorium hann biggde þær Hæder, og sette þa Lunda og Afgude, fyrr enn hann vard audmyktur, Sioa, þad er skrifad j Giørningum Sioaandanna.

20. Og Manasses sofnade med sijnum Fedrum, og þeir jordudu hann j hans Huse, Enn Amon, hans son, vard Kongur j hans Stad.

II. 21. Amon hafde Tvo um Tvitugt þa hann vard Kongur, og hann rijkte Tvo Aar j Jerusalem.

22. Og hann giørde þad sem DROttne jlla þocknadest, eins sem hans Fader Manasses hafde giørt. Og Amon færde Foorner til allra Afguda, sem hans Fader Manasse hafde giørt, og þionade þeim.

23. Enn hann audmykte sig ei fyrer DROttne so sem hans Fader Manasses audmykte sig, þvi Amon giørde margfallda Synd.

24. Og hans Þienarar bundu Scattmaal a moote hønum, og drapu hann j hans Huse.

25. Enn Landsfolked drap þa alla sem þad Scattmaals band høfdu giørt a moote Amon Konge. Og Landsfolked took Josiam, hans son, til Kongs j hans stad.

## XXXIV. Capitule.

Um Josias er var Einn Gudhræddur Konungur i Juda.

Josias var atta Aera gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte eitt og Priatijge aar j Jerusalem.

2. Hann giørde þad sem DROTTne vel lijkade, og gieck a sijns Føðurs Davids Vegum, og veik hvorke vt af til Hægre nie Vinstre Handar.

3. Þviad a attunda Aare sijns Kongs-Rijkis, þa hann var enn Barn, upphoof hann ad leita Guds sijns Føðurs Davids. Og a Toolfta aare upphoof hann ad hreinsa Judam, og Jerusalem, af Hædum, og Lundum, Skurgodum, og steyptum Bijlætum.

4. Hann liet og nidurbriota fyrer sier Baalims Alltare, og afhioo þad Bijlæte sem þar stood ofana. Hann braut og ißundur alla Lunda, og Skurgod, og Bijlæte, og giørde þad ad Øsku, og joos henne yfer Grafer þeirra sem þeim høfdu offrad.

5. Hann brennde og Prestanna Bein a Olltørunum, og hreinsade so Juda, og Jerusalem.

6. Ad auk þessa j Borgum Manasse, og Ephraim, og Simeon, og allt til Nephthali, j þeirra Eydemørku allt umkring.

7. Enn sem hann hafde nu nidurbroted Olltørinn, og Lundana, og sundursleiged Afgudena, og afhøggved øll Bijlæte um allt Israelis Land, þa kom hann aptur til Jerusalem.

8. A hinu attianda aare sijns Kongsrijkis, þa hann hafde hreinsad Landed, og Hused, þa sende hann Saphan, Son Assalia, og Maeseja Stadarins Fovita, og Joah, Son Joachas, Canzelerann, ad endurbæta DROttins sijns Guds Hwß.

9. Og þeir komu til Hilkia þess ypparsta Kiennemanns, og feingu hønum þa Peninga sem færder voru til Guds Huss, hvoria ad Levitarner, sem ad voru Dyraverder, høfdu samansafnad, af Manasse, Ephraim, og af øllum þeim sem epter voru ordner j Israel, og af øllum Juda og BenJamin, og þeir komu aptur j Jerusalem.

10. Og afhendtu þad j Verkmannanna Hendur sem ad skickader voru j DROttins Hus. Og þeir gaafu þad þeim sem smijdudu ad DROTTins Huse, ad þeir bættu hvad þar var nidurfalled, so ad þeir endurbætte Hused.

11. Þesser enu somu gaafu þad frammveiges Triesmidum og Byggingarmønnum, til ad kaupa uthøggna Steina, og heflud Trie

Trie til Bialkanna, j þau Hus sem Juda Kongar høfdu fordiarfad.

12. Og þeir Menn erfidudu uppa Verked trulega. Og yfer þa voru setter Jahath og Obadia, Levitar, af Merari Bornum, Sacharia og Mesullam, af Bornum Kahathiter, ad frammkvæma Giorningenn, og voru aller Levitar, sem kunnu ad leika a Streingia Hliodfære.

13. Enn þar voru af Levitunum Skrifarar, Embættismenn, og Portvaktarar, yfer þeim sem Byrdernar bææru, og yfer þeim sem hielldu til Pionustunnar j allrahanda Embættum.

14. Enn sem þeir tooku vt Peningana, sem jnn voru lagder j DROTTins Hws, þa fann Hilkia Kiennemadur Løgmoals Book DROTTens, sem vt var giefenn fyrer Mosen.

15. Og Hilkia svarade, og sagde til Saphans Skrifara, Eg hefe funded Løgmoals Bookena j Hwse DROttens. Og Hilkia fieck Saphan Bookena.

16. Enn Saphan bar hana fyrer Kongenn, og hann talade til Kongsins aptur, og sagde, Allt þad sem giefid er under þinna Pienara Hendur þad giora þeir.

17. Og þeir hafa teked saman þad Fie sem fundest hefur j Hwse DROTTins, og gaafu þeim sem standa fyrer Arfidenu, so og þeim sem Verked fremia.

18. Og Saphan Skrifare undervijsade Kongenum, og sagde, Hilkia Kiennemadur fieck mier eina Book. Og Saphan las j henne fyrer Kongenum.

19. Og sem Kongurenn heyrde Løgmoalsins Ord þa reif hann sijn Klæde jsundur.

20. Og Kongurenn baud Hilkia, og Ahikam, Syne Saphan, og Abdon, Syne Micha, og Saphan, Skrifara, og Asaia, Sveine Kongsins, og sagde,

21. Fared, og adspyrjed DROttinn fyrer mig, og fyrer þa sem epter eru orduer j Israel, og fyrer Juda, um Bokarennar Ord sem fundenn er. Þviad Reide DROttins er mikel, sem uppkveikt er yfer oss, ad vorer Forfedur hafa ei hallded Ord DROttins, ad giora þad sem skrifad stendur j þessare Book.

22. Pa gieck Hilkia, og þeir adrer sem vt voru sender af Kongenum til Hulda Spaakonu, Kvinnu Sallum, Sonar Thakeath, Sonar Hasra þess Klædageymara, sem bioo j Jerusalem, j þeim ødrum Parte, og toludu þetta vid hana.

23. Og hun sagde til þeirra, So seiger DROttinn Israels GUD, Seiged þeim Manne sem ydur vtsende til mijn,

24. So seiger DROttinn, Sioa, Eg vil leida Olucku yfer þennann Stad, og hans Innbyggiara, allar þær Bolvaner, sem ad standa skrifadar j Bookenne, sem * ad lesenn var fyrer Juda Konge.

* 5 B. Mos. 22, 16.

25. Sokum þess, ad þeir hafa yfergiefed mig, og brennt Reykelse fyrer annarlegum Gudum, og styggt mig med allshaattar þeirra Handaverkum, og mijn Reide skal uppkveikiast yfer þessum Stad, og skal ecke vtslockt verda.

26. Og þier skulud so seigia Konge Juda, þeim sem ydur vtsende, ad spyria DROttinn, So seiger DROttinn Israels GUD, um þau Ord sem þu heyrder.

27. Sokum þess ad þitt Hiarta er ordeð klockt, og þu audmykter þig fyrer Gude, þa þu heyrder hans Ord, a moote þessum Stad, og Innbyggiurunum, og þu lijtelætter þig fyrer mier, og sundurreifst þijn Klæde, og grietst fyrer mier, þa hef Eg bænheyrt þig, seiger DROttinn.

28. Sioa, Eg vil safna þier til þinna Fedra, so þu skallt safnast j þijna Grof med Fride, so ad þijn Augu skulu ecke sioa alla þa Olucku, sem Eg vil senda yfer þennan Stad, og hans Innbyggiara. Og þeir sogdu Kongenum þetta aptur.

29. Pa sende Kongurenn vt, og liet saman

saman koma alla þa enu ellstu j Juda, og Jerusalem.

30. Og Kongurenn gieck upp j DROttins Hws, og allt Folk Juda, og Innbyggiarar j Jerusalem, og Prestarner, og Levitarner, og allur Almwgenn, bæde smaaer, og stoorer, og oll þau Ord sem stoodu j Saattmaals Bookenne, þeirre sem fundenn var j DROttins Hwse, voru lesenn fyrer þeirra Eyrum.

31. Og Kongurenn gieck j sinn Stad, og giorde eirn Saattmaala fyrer DROTTne, ad Menn skylldu ganga epter DROTTne, og hallda hans Bodord, Vitnisburde, og Riettinde, af ollu Hiarta, og af allre Saalu, og giora epter ollum þessum Saattmaals Ordum, sem skrifud eru j þessare Bok.

32. Og aller þeir sem naalæger voru j Jerusalem, og j BenJamin, stoodu þar, og Jerusalems Innbyggiarar giordu epter DROTTins þeirra Fedra Guds Saattmaala.

33. Og Josias took burt allar Svivirdingar af ollum Londum, sem Israelis Bornum tilheyrdu, og kom þvi til Leidar, ad aller þeir sem voru fundner j Israel, þionudu DRottne sijnum Gude. So leinge sem Josias lifde viku þeir ecke fra DROTTne þeirra Fedra Gude.

## XXXV. Capitule.

Josias Juda Kon: (I) Helldur Paaska; (II) Byriar Strijd aan Orsakar; (III) Deyr, og er harmadur af Morgum.

I. Og Josias hiellt DROTTne Paaska j Jerusalem, og slaatrade Paaskum aa þeim Fiortanda Deige j þeim Firsta Maanade.

2. Og hann skipade Prestana til þeirra Vardhallds, og styrkte þa j þeirra Embætte, j Hwse DROTTins.

3. Og hann sagde til Levitanna, hvorier ed lærdu allann Israel, og helgader voru DROTTNE, Setied þa Heilogu Ork j Hwsed þad sem Salomon, Son Davids, Israelis Kongur biggde. Og þier skulud ecke bera hana aa ydrum Oxlum. So þioned nu DROTTne ydrum Gude, og hans Folke Israel.

4. Og skipted ydra Fedra Hwsum j ydar Skipaner, so sem þad er skrifad af David Israelis Konge, og af hans Syne Salomone.

5. Og standed j Helgedomenum, epter Skickan ydra Fedra Hwsa, a medal ydra Brædra, sem fædder eru af Folkenu, og epter Skickan Fedra Hwsanna, a medal Levitanna.

6. Slaatred Paaskum, og giored ydur helga, og tilskicked ydar Brædur, ad þeir giore epter DROTTins Orde fyrer Mosen.

7. Og Josias gaf til Upplyptingar fyrer Almwgann, Lomb, og Kid (alltsaman til Paaskanna, fyrer alla þa sem vid voru,) ad tolu Priatijge Þusunder, og Priar Þusunder Uxa, og alltsaman af Kongsins Gotse.

8. Hans Hofdingiar gaafu og viliuglega til Upplyptingarennar fyrer Folked, og fyrer Prestana, og Levitana, (sem var Hilkia, Sacharia, og Jehiel, Hofdingiar j Guds Hwse, a medal Kiennemannanna,) til Paaskanna, Tvo Þusund, og Sex Hundrud Lomb og Geitur,) þar til Priu Hundrud Uxa.

9. Enn Chanania, med Semaia, Nathaneel, og hans Brædur, Hasabia, Jehiel, og Josabad, Levitanna Hofdingiar, þeir gaafu Levitunum til Upplyptingar til Paaskanna, Fimm Þusund (Lomb og Geitur,) og þar til Fimm Hundrud Uxa.

10. So vard nu Guds Þionusta tilskickud, og Prestarner stoodu j sijnum Stad, og Levitarner j þeirra Skipan, epter Kongsins Bode.

11. Og þeir slaatrudu Paaskum, og Kiennemennerner tooku Blooded af þeirra Hondum, og stocktu þvi, enn Levitarner tooku Skinnenn af þeim.

12. Og giordu Brennefoorner þar af, so þeir

þeir mættu giefa þad a medal Hluta þeirra Fedra Hwsa, a medal Almwgans Hoops, til Offurs DROTTne, so sem þad stendur skrifad j Moses Book, so giordu þeir og vid Uxana.

13. Og þeir tilbiuggu Poaska med Ellde, epter þvi sem vera oatte. Enn hvad sem helgad var þad matgiordu þeir j Pottum, Kotlum, og Ponnum, og þeir giordu þad fliotlega fyrer Almwgans Hoop.

14. Epter þad biuggu þeir og til fyrer sig, og Prestana, þviad Kiennemennerner Aarons Born hofdu ad giora med Brenneoffred, og Feitena, allt til Nætur, og þvi urdu Levitarner ad tilreida nockud fyrer sig, og Prestana, Aarons Born.

15. Og Saungvararner, Born Assaphs, stoodu j þeirra Stad, epter Skipan Davids, og Assaphs, og Hemans, og Jedithuns Kongsins Sioanda. Og Dyraverderner hioa øllum Portum, og þeir viku ecke fra sijnu Embætte, þviad Levitarner þeirra Brædur reiddu til fyrer þa.

16. So vard oll DROTTins Guds Pionustugiord skickud a þeim sama Deige, ad hallda Poaska, og giora Brenneforner a Alltare DROTTins, epter Bifalningu Josias Kongs.

17. So hielldu Israels Born, þau sem þar voru, Poaska a þeim Tijma, og þa Osyrdu Brauda Hoatijd j Sio Daga.

18. Par voru ongver þvilijker Poaskar halldner j Israel sem þesser, fra Døgum Samuels Spoamanns, og eingenn Israels Kongur hafde hallded soddan Poaska, sem Josias hiellt Poaska, og Prestarner, og Levitarner, og allur Juda, og þeir sem þar vid voru af Israel, so og þeir sem biuggu j Jerusalem.

19. Og þesser Poaskar voru halldner a þvi oatianda Aare Josiæ Kongsrijkes.

II. 20. Enn epter þad Josias hafde tilreidt Hwsed, þa ferdadest Necho, Kongur af Egyptalande, upp, ad beriast jmoot Charchemes vid Phrath, enn Josias foor wt jmoote honum.

21. Enn hann sende Bod til hans, og liet seigia honum, Hvad hef eg ad giora med þig þu Kongur Juda? Eige kom eg nu þier jmoot, helldur jmote þvi Hwse sem strijder vid mig, og GUd sagde, ad eg skyllde flyta mier, Laat af fra Gude, sem er med mier, so hann sloae þig ecke jhel.

22. Enn Josias leit ecke af honum, helldur bioo sig til Strijds jmoote honum, og villde ecke hlyda Ordum Necho wt af Guds Munne, og kom ad beriast vid hann a þeim sliettu Vøllum hioa Megiddo.

III. 23. Enn Kongsins Skyttur skutu Josiam Kong, og Kongurenn sagde til sinna Pienara, Flytied mig þar yfer um, þvi eg er miog soar.

24. Og hans Pienarar tooku hann af Vagnenum, og lietu hann j hans annann Vagn, og fluttu hann til Jerusalem. Og hann andadest, og var jardadur a medal grafa sinna Fedra. Og allur Juda, og Jerusalem syrgdu Josiam.

25. Jeremias griet Josiam, og aller Saungmenn, og Saung-Kvinnur klogudu med groatlegum Saungvum epter Josiam, jnn til þessa Dags, og þeir giordu einn Sidvana þar af j Israel, Sioa, þad er skrifad a medal Sorgar-Saungvanna.

26. Enn hvad meira er ad seigia um Josia, og hans Miskunsemd, so sem skrifad stendur j DROTTins Logmoale,

27. Og hans Giorningar, hiner Firstu, og Sijdurstu, Sioa, þad er skrifad j Israels og Juda Konga Book.

## XXXVI. Capitule.

(I) Joachas; (II) Jojachim; (III) Joachim; Og (IV) Zedechias, Konungar i Juda; Og hverstu þeir Rijktu.

I. Og Landsfolked took Joachas, Son Josia, og giorde hann ad Konge j sijns Fodurs Stad j Jerusalem. 2. Jo-

2. Joachas hafde Þrin Aar og Tuttugu, þa hann vard Kongur, og hann rijkte Þria Maanude j Jerusalem.

3. Þviad Kongurenn af Egyptalande afsette hann j Jerusalem, og lagde Straff a Landed, Hundrad Centener Silfurs, og eitt Centener Gulls.

4. Og Egyptalands Kongur sette Eliakim, hans Brodur, til Kongs yfer Juda, og Jerusalem, og snere hans Nafne, Joakim. Enn Necho took hans Brodur Joachas, og flutte j Egyptaland.

II. 5. Joachim hafde Fimm Aar og Tuttugu þa hann vard Kongur, og hann rijkte ellefu Aar j Jerusalem, Og giorde þad sem DROTTne hans Gude jlla lijkade.

6. Enn Nabogodonosor, Kongurenn af Babylon, foor ut j moote honum, og batt hann Viddium, ad hann giæte flutt hann til Babylon.

7. Og Nabogodonosor flutte nockud af Kierum DROttins Huss j Babylon, og lagde þau j sitt Mustere j Babylon.

8. Hvad meira er ad seigia um Jojakim og hans Svijvirdingar sem hann giorde, og med honum voru fundnar, Siaa, þad er skrifad j Jsraels og Juda Konga Book. Og hans son Joachin vard Kongur j hans stad.

III. 9. Joachin var aatta Aara gamall þa hann vard Kongur, og hann rijkte þria Maanude og Tiju Daga j Jerusalem, og giorde þad sem DROttne jlla lijkade.

10. Enn ad aare lidnu þa sende Nabogodonosor þangad, og liet hafa hann til Babylon, med þeim kostulegu Kierum j Huse DROttins. Og hann sette Zedechiam, hans Brodur, til Kongs yfer Juda og Jerusalem.

IV. 11. Zedechias hafde Eitt Aar og Tuttugu þa hann vard Kongur, og hann rijkte Ellefu Aar j Jerusalem,

12. Og framde þad sem DROttne hans Gude jlla lijkade, og hann audmykte sig ecke fyrer Jeremia Spaamanne, hvor ed talade af DROttins Munne.

13. Þar med fiell hann fra Nabogodonosor, Konge af Babylon, sem hafde teked eirn Eid af honum vid Gud, og hann þverskalladest og forherdte sitt Hiarta, ad hann villde ei snua sier til DROTTins Guds Jsraels.

14. Og aller þeir Yppurstu a medal Kiennemannanna, og Almugenn syndgadest stoorlega, epter allshaattudum Svijvirdingum Heidingianna, og saurgudu Hus DROTTins, hvort hann hafde helgad j Jerusalem.

15. Og DROttenn þeirra Fedra Gud sende til þeirra tijmanlega fyrer sijna Sendeboda, þvi hann hlijfde sijnu Folke, og sijnu Heimele.

(a) (Tijmanlega) þad er, Hann sagde þeim þad j Tijma aadur fyrer, so þeir høfdu nogann Tijma ad betra sig, aadur enn Straffed kom.

16. Enn þeir spottudu Guds Sendemenn, og forsmaadu hans Ord, og hæddu hans Spaamenn, þar til DROttins Reide vox yfer hans Folke, so ad þar var eingenn Lækning framar.

17. Þviad hann færde Kongenn af Chaldea lande yfer þa, hann liet slaa j Hel med Sverde þeirra Æskumenn, j Huse þeirra Helgedoms, hann gaf og ecke Grid, hvorke Ungum Pilltum nie Jomfrum, eige gomlum nie orvasa Fedrum, hann gaf þa alla j hans Hendur.

18. So og oll Kier af DROttins Huse, bæde smaa og stoor, so og lijka Fiaarsiodunna j Huse DROttins, og so lijka Fiaarsioodu Kongsins og hans Höfdingia, þad allt saman liet hann flytia til Babylon.

19. Og þeir uppbrenndu Guds Hus, og nidur rifu alla Murvegge kringum Jerusalem, alla þeirra Sale brenndu þeir upp med Ellde, og aller þeirra kostulegustu Bushluter fordiorfudust.

20. Og þeir fluttu burt til Babylon þad sem epter var, og þeir urdu hans og hans Sona Þienarar, jnn til þess ad Kongsrijked af Persia stiórnade.

21. So ad DROttins Ord skyllde full-

komnast, fyrer Munn Jeremiæ, þar til Landed hafde noog af sijnum Sabbathum, þviad allur sa Tijme sem Foreydslann stood yfer, þa var Sabbath, allt til þess ad Siotijge Aar voru ute.

22. Enn a þvi firsta Aare Cyri Kongs af Persia Lande, so ad DROttins Ord skyllde fullkomnast, fyrer Munn Jeremiæ, þa uppvakte DRottinn Anda Cyri, Kongsins af Persia, ad hann liet uthroopa um allt sitt Kongsrijke, med Briefum, og seigia,

23. So seiger Cyrus, Kongur af Persia Lande, DROttinn Gud af Himnum hefur giefed mier øll Kongarijke j Londonum, og hann hefur boded mier ad biggia sier eitt Hus j Jerusalem, j Juda. Hver sem nu er a medal ydar af hans Folke med hønum sie DROttinn hans Gud, og fare hann upp þangad.

Ender a þeirre Annare Chronicu Bookenne.

# Book Esdræ.

## I. Capitule.

Lausn Gydinga ur þeirre Babylonisku Herleiding.

Ð þvi Firsta Aare (*) Cyri, Kongs af Persia Lande, so ad uppfylltest Ord DROTTins, sem talad var fyrer Munn Jeremia, Þa uppvakte DROTTinn Anda Cyri, Kongsins af Persia, so hann liet uthroopa um allt sitt Kongsrijke, og so med Briefum, og seigia.

(*) [Cyrus, ad lidnum 70. Aarum, lætur Folkid fara heim j Judeam, ad biggia Mustered og Jerusalem upp aptur.]

2. So seiger Cyrus Kongur j Persia. Gud DROTTinn af Himnenum hefur giefed mier øll Kongarijke j Londunum, og hann hefur bifalad mier, ad eg skyllde biggia hønum eitt Hus j Jerusalem j Juda.

3. Hver þar nu er a medal ydar af hans Folke med hønum sie hans Gud, og hann skal reisa upp til Jerusalem j Juda, og uppbiggia DROTTins Israelis Guds Hus. Hann er Gud, sem er j Jerusalem.

4. Og hver sem enn nu epter er j øllum stødum þar sem hann er utlendur, hønum skal Folked j þeim stad hiaalpa med Silfur og Gull, Gots og Kvikfie, af einum friaalsum vilia til Guds Hufs j Jerusalem

* [Utlausn ur þeirre Babylonisku Herleidingu, og Uppbaf þess Persianiska Kongarijkis, a þvi Firsta Aare Cyri, epter Heimsins Uppbaf 3464. Fyrer Christi Fæding 496.]

5. Þa tooku sig upp Hofdingiar Fedranna af Juda og BenJaminn, og so Prestarner og Levitarner, aller þeir sem Ande Guds uppvakte ad fara upp, og biggia DRottins Hus j Jerusalem.

6. Og aller þeir sem voru j kringum þa styrktu þeirra Hendur med Silfurkierum og Gullkierum, med Gotse og Fie, og Gersemum, Auk þess sem þeir sioalfviliuglega gaafu.

7. Og Cyrus Kongur took framm Kierinn DRottins Hufs, sem Nabogodonosor hafde teked ur Jerusalem, og sett j sijns Guds Hus.

8. Enn Cyrus, Kongur j Persia, took þau ut fyrer Mithridatem Rentumeistara, og talde þau j hendur Sesbazar Hofdingia Juda.

9. Og þetta er þeirra Tala, Þriatijge Munnlaugar af Gulle, Þusund Silfurmunnlaugar, Niju og Tuttugu Knijfar.

10. Þriatijge Gullbikarar, og þeir adrer Silfurbikarar, Fiogur Hundrud og Tiju, og ønnur Kier Þusund.

11. So ad øll Kier, bæde af Gulle og Silfre, voru Fimm Þusund og Fiogur Hundrud. Sesbazar flutte þau øll upp med þeim sem fooru ur Herleidingunne af Babylon til Jerusalem.

## II. Capitule.

Her seger, hverier þeir Gydingar hafe vered sem (I) foru til Jerusalem, og (II) gaafu Godfusliga til Biggingar Musteresins.

I. Þesse eru Born af Londunum, sem fooru upp ur Fangelsinu, hvoria Nabogodonosor, Kongur af Babylon, hafde flutt til Babylon, og komu aptur j Jerusalem og Juda, hvor j sinn stad.

2. Sem komu med Sorobabel, Jesua, Nehemia, Seraja, Reelia, Mardochai, Bilsan, Mispar, Bigevai, Rehum og Baena. Þetta er nu Manntal Israels Folks.

3. Born Parees, Tvo Þusund Hundrad Siotijge og Tveir.

4. Born Sephatia, Þriu Hundrud Siotijge og Tveir.

5. Born Arahs, Sio Hundrud Siotijge og Fimm.

6. Born PahathMoabs medal Barna Jesua, Joab, Tvo Þusund aatta Hundrud og Toolf.

7. Born Elams, Þusund Tvo Hundrud Fimmtijge og Fiogur.

8. Born Sathu, Niju Hundrud Fiorutijge og Fimm.

9. Born Sachai, Sio Hundrud og Sextijge.

10. Born Bani, Sex Hundrud Fiorutijge og Tvo.

11. Born Bebai, Sex Hundrud Tuttugu og Þriu.

12. Born Asgads, Þusund Tvo Hundrud Tuttugu og Tvo.

13. Born Adonikams, Sex Hundrud Sextijge og Sex.

14. Born Bigevai, Tvo Þusund Fimmtijge og Sex.

15. Born Adins, Fiogur Hundrud Fimmtijge og Fiogur.

16. Born Aters af Hiskia, aatta og Nijutijge.

17. Born Bezai, Þriu Hundrud Tuttugu og Þriu.

18. Born Jorahs, Hundrad og Toolf.

19. Born Hasum, Tvo Hundrud Tuttugu og Þriu.

20. Born Gibbars, Nijutijge og Fimm.

21. Born Bethlehems voru Hundrad Tuttugu og Þriu.

22. Menn Nethopha, Fimmtijge og Sex.

23. Þeir Menn af Anatoth, Hundrad Tuttugu og aatta.

24. Born Asmaveth, Fiorutijge og Tvo.

25. Þau Born af KiriathArim, Kaphira og Beeroth, Sio Hundrud Fiorutijge og Þriu.

26. Þau Born af Rama og Gaba, Sex Hundrud Tuttugu og Eitt.

27. Þeir Menn af Michmas, Hundrad Tuttugu og Tveir.

28. Þeir Menn af BethEl og Ai, Tvo Hundrud Tuttugu og Þrijr.

29. Born Nebo, Fimmtijge og Tvo.

30. Þeir Menn af Magbis, Hundrad Fimmtijge og Sex.

31. Born Elams hins annars, Þusund Tvo Hundrud Fimmtijge og Fiogur.

32. Born Harims, Þriu Hundrud og Tuttugu.

33. Born LodHadids og Ono, Sio Hundrud Tuttugu og Fimm.

34. Born Jericho, Þriu Hundrud Fiorutijge og Fimm.

35. Born Senaa, Þriar Þusunder, Sex Hundrud, og Þriatijge.

36. Prestarner, Born Jedaia af Huse Jesua, Niju Hundrud Siotijge, og Þriu.

37. Born Immer, Þusund Fimmtijge, og Tvo.

38. Born Pashur, Þusund, Tvo Hundrud Fiorutijge, og Sio.

39. Born Harims, Þusund og Seitian.

40. Levitarner, Born Jesua, og Kadmiel af Bornum Hodavia, Siotijge, og Fiogur.

41. Saungvararner, Born Assaphs, Hundrad og Tuttugu og aatta.

42. Born Dyravardaranna, Born Sallum, Born Aters, Born Talmons, Born Akubs, Born Hatita, og Born Sobai, þesse oll voru Hundrad Niju og Priatijge.

43. Þeir Nethinim, Born Siha, Born Hasupha, Born Tabaoth,

44. Born Keros, Born Siehha, Born Padons,

45. Born Lebana, Born Hagaba, Born Akubs,

46. Born Hagabs, Born Samlai, Born Hanan,

47. Born Giddels, Born Gahars, Born Reaja,

48. Born Rezin, Born Nekoda, Born Gasam,

49. Born Usa, Born Pasea, Born Bessai,

50. Born Asna, Born Meonim, Born Nephusim,

51. Born Bakbuks, Born Hakupha, Born Harhur,

52. Born Bazeluth, Born Mehira, Born Harsa,

53. Born Barkom, Born Sisera, Born Thamah,

54. Born Neziah, Born Hatipha,

55. Born Pienara Salomonis, Born Sotaj, Born Sophereth, Born Pruda,

56. Born Jaela, Born Darkons, Born Giddels,

57. Born Sephatia, Born Hattils, Born Pochereth af Sebalm, Born Ami,

58. Aller Nethinim, og Born Pienara Salomonis, voru tilsamans Priu Hundrud Niutiju og Tvo.

59. Og þesser fooru og upp med af Mithel Melah, Thel Harsa, Cherub, Addon og Immer, enn þeir gaatu ecke sagt til sinna Fedra Hwsa, og ecke til þeirra Sædis, hvort þeir voru af Israel.

60. Born Delaja, Born Tobia, Born Nekoda, Sex Hundrud Fimmtijge og Tvo,

61. Og af Prestanna Bornum, Born Habaja, Born Hakos, Born Barsillai, sem took sier eina Kvinnu af Dætrum Barsillai Gileaditer, og var nefndur epter þvi sama Nafne.

62. Þeir leitudu epter Registre sinnar Fæddingar, og fundu ecke, þar fyrer voru þeir rekner fra Kiennemannskapnum,

63. Og Hathirsatha sagde til þeirra, Ad þeir skylldu ecke eta af þvi Allrahelgasta, fyrr enn eirn Prestur stæde med Urim og Thumim.

64. Sa allur Almwge, so sem eirn Madur, var Tvær og Fiorutijge Pusunder, Priu Hundrud og Sextijge,

65. Ad auk þeirra Prælar og Ambaatter, þeir voru Sio Pusund Priu Hundrud Priaatijge og Sio, og þeir hofdu Tvo Hundrud Saungvara, og Saungs-Kvinnur,

66. Sio Hundrud Sex og Priaatijge Hesta, Tvo Hundrud Fimm og Fiorutijge Mula,

67. Fiogur Hundrud Fimm og Priaatijge Ulfallda, Sex Pusund, Sio Hundrud og Tuttugu Asna.

II. 68. Og nockrer af þeim yppurstu Fedrum, þegar þeir komu til DROTTins Hwss j Jerusalem, þa voru þeir fwser til DROTTins Hwss, ad Menn settu þad aa sinn Stad.

69. Og þeir gaafu epter sijnum Efnum, til Fiesioodar Giorningsins, eitt og Sextijge Pusund Gyllene, og Fimm Pusund Pund Silfurs, og Hundrad Kiennemanna Klæde,

70. So settu sig nidur Prestarner, og Levitarner, og nockrer af Folkenu, og Saungvararner, og Dyraverderner, og þeir Nethinim, j sijna Stade, og allur Israel j Borgernar.

## III. Capitule.

Jesua og Sorobabel (I) færa Forner; (II) Halda Lauf-Skaala Hatijd; Og (III) leggia Grundvoll Mustereſins.

I. Enn sem sa hinn Siounde Maanudur var komenn, og Israelis Born voru

nu j sijnum Stodum, kom Folked tilsamans j Jerusalem, so sem eirn Madur.

2. Og Jesua, Son Josedeks, og hans Brædur Kiennemennerner toku sig upp, og * Sorobabel, Son Sealthiels, og hans Brædur, og biggdu Jsraels Guds Alltare, til ad offra Brennefoornum þar yfer, so sem þad stendur skrifad j Mose Guds Manns ** Logmaale,

* Matth. 1, 12. ** 2 B. Mos. 27, 1. c. 38, 8.

3. Þeir tilreiddu Alltared a sijnum Stool, (þvi þar var ein hrædsla a millum þeirra, sökum Folksins j Landenu, og þeir offrudu DROTTne Brenne-Offur, yfer þvi, Kvolld og Morgna.

II. 4. Og þeir hielldu Laufskaala Haatijd, epter þvi sem skrifad stood, og færdu * Brenneoffur hvorn Dag, epter talenu, so sem til heyrde; hvorn Dag sitt Offur.

* 3 B. Mos. 23.

5. Þvi næst þær daglegar Brennefoorner og Nymaanada, og alla DROttins Haatijdisdaga, sem ad heilager voru, og allshaattadar sialfviliugar Foorner, sem þeir færdu DROttne af sijnum frialsum Vilia.

6. A þeim firsta Deige j þeim Siounda Maanude tooku þeir til ad giora DROttne Brennefoorner, Enn Grundvollur DROttens Musteris var þa ecke enn lagdur.

7. Og þeir gaafu Steinhoggvurum og Triesmidum Peninga, og Mat, og Dryck, og Vidsmiör, þeim j Sidon og Tyro, ad þeir skylldu flytia Cedrus Vide af Libanon, yfer Hafed til Japho, epter Bifalning Cyri Kongs af Persia til þeirra.

III. 8. A odru Aare, epter þad ad þeir komu til Guds Huss j Jerusalem, j þeim odrum Maanade, þa upphoof Sorobabel, son Sealthiel, og Jesua, son Josedeks, og hiner adrer sem epter voru ordner af þeirra Brædrum, Prestar og Levitar, og aller þeir sem komner voru ur Faangelsenu til Jerusalem, og þeir skickudu Levitana, fraa Tuttugu Aarum og þar yfer, ad þeir skylldu framm filgia Verkinu j DROTTins Huse.

9. Og Jesua stood med sijnum Sonum og Brædrum, og Kadmiel med sijnum Sonum, og Born Juda, sem eirn Madur, ad filgia ad Erfidismonnonum j Guds Huse, sem var, Born Henadad, med þeirra Bornum, og þeirra Brædrum Levitunum.

10. Nu sem Byggingar Mennerner logdu Grundvollenn til Musteris DROTTins, þa stoodu Prestarner skrydder, med Trametum, og Levitarner Born Assaphs, med Cymbalis, ad lofa DROTTinn, med Davids Jsraels Kongs Dickt.

11. Og sungu hvor til annars, med Lofe og þackargiord til DROTTins, ad hann er Goodur, og hans Miskunseme varer Eylijflega yfer Jsrael. Og allt folked kallade haatt, og lofade DROTTinn, ad Guds Huss Grundvollur var lagdur.

12. Enn marger af þeim gomlu Prestum og Levitum, og þeim yppurstu Fedrum, sem sied hofdu þad Fyrra Hused, og þessa Huss Grundvollur var lagdur fyrer þeirra Augum, þa grietu þeir haarre Roddu, Enn marger kolludu upp af stoorum Fagnade, so ad þad Hroop hlioomade so haatt,

13. Ad Folked kunne ecke ad þeckia Gledi-Hrooped fraa Graat-hroopenu a medal Folksins, Þviad Folked hlioodade so haatt, ad þeirra Kall heyrdest langa vega j burt.

## IV. Capitule.

Bygging Musterisins er Hindrud af Fiandmonnum Gydinganna.

Þegar Ovinér þeirra Juda og BenJamins heyrdu þad, ad þau Born Herleidingarennar uppbiggdu DROTTins Guds Jsraels Mustere,

2. Þa komu þeir til Sorobabels, og til þeirra yppurstu Fedra, og sogdu til þeirra, Vier viliumm og biggia med ydur, Þviad vier leitum ydars Guds so sem þier, og vier hefum ei offrad, fraa þeim Tijma ad Assar Haddon, Kongurenn af Assyria færde oss upp hingad.

3. Enn

3. Enn Sorobabel og Jesua, og þeir adrer yppurstu Fedur yfer Israel svorudu þeim, Ecke hæfer þad oss og ydur ad biggia vors Guds Hus, Helldur vilium vier alleina biggia Gude DROTTne Israels, so sem Cyrus Kongur af Persia baud oss.

4. Þa hamlade Folked j Landenu Juda Folks Hende, og skielfde þad fra uppbiggingunne.

5. Og þeir leigdu Roadgiafara a moote þeim, og hindrudu þeirra Road, so leinge sem Cyrus Kongur af Persia lifde, allt til Kongsrijkis Darij Kongs af Persia.

6. Þvi þa Assverus var Kongur, j Upphafe hans Kongdoms, skrifudu þeir eina Akiæru a moote þeim j Juda og Jerusalem.

7. Og a Dogum Artaxerxes * skrifade Bislam, Mithridates, Tabeel, og þeir adrer af þeirra Roadaneyte, til Artaxerxes, Kongsins af Persia. Og Briefed var skrifad a Syrlendsku, og var utlagt a Syrlendsku.

* Artaxerxes edur Assverus Eigenn-Madur Esther.

8. Rehum Canzeler, og Simsa Skrifare skrifudu sama Brief moot Jerusalem til Artaxerxes Kongs.

9. Vier Rehum Canzeler, og Simsai Skrifare, og adrer þess Roadaneytes af Dina, af Apharsach, af Tharplat, af Persen, af Arach, af Babylon, af Susan, af Deha, og af Elam.

10. Og þad annad Folk, sem sa mikle nafnfræge Asnaphar hingad færde, og sette hier nidur j Samaria Borgum, og j odrum Stodum þessumeigiñ Vatnsins, og j Canaan.

11. Og Briefed, þad þeir sendu til Artaxerxes Kongs, hlydde so. Þiner Þienarar, þeir Menn sem eru þessumeigenn Vatnsins, og j Canaan.

12. Þad sie Kongenum vitanlegt, ad Gydingarner, þeir sem komner eru hingad til vor, fra þier, til Jerusalem, j þann styrialldiarfulla og vonda Stad, þeir uppbiggia þar, og giora sijna Mura, og færa þa upp fra Grundvelle.

13. Þa sie þad nu Kongenum vitanlegt, ad ef þesse Stadur verdur uppbiggdur, og Mwrarner verda aptur giorder, Þa munu þeir ecke vilia giefa þier Skeinking, Toll, nie aarleganu Skatt, og þeirra aaform mun Kongenum ecke skadlaust vera.

14. Nu vier aller sem fyrr med vorum, nidur ad briota Mustered, þa hofum vier ecke leingur viliad sia uppa Kongsins forachtun, Og þvi sendum vier hiedan, ad Kongurenn fae ad vita þad.

15. Og ad Menn leite j Annalum þinna Fedra, so muntu finna j þeim somu Annalum, og fornema, ad þesse Stadur er upphlaupsamur, Kongenum og Landenu skadsamur, og kiemur odrum til Af-falls fra gamallre Tijd, og þvi hefur og þesse Stadur vered eydelagdur.

16. Þess vegna giorum vier Konge þad vitanlegt, Ef þesse Stadur verdur uppbiggdur, og hans Mwrvegger giorder, Þa helldur þu ongvo epter fyrer þeim, þessumeigenn Vatnsins.

17. Þa sende Kongurenn Svar aptur til Rehum Canzeler, og Simsai Skrifara, og til þeirra annara sem voru j þeirra Roade, og j Samaria binggu, og til hinna annara sem hinumeigenn Vatnsins voru. Fridur og Heilsan!

18. Þad Brief sem þier sendud oss, þad var openberlega lesed fyrer mier,

19. Og er af mier bifalad, ad leitast skyllde. Og Menn hafa funded, ad þesse Stadur hefur af gamallre Tijd uppsett sig a moote Kongunum, og giort Uppreisn, og Af-fall þar jnne.

20. Og so hafa þar vered Megtuger Kongar j Jerusalem, hvorier rijkt hafa yfer ollu þvi sem hinumeigenn Vatnsins vered hefur, so ad þeim var giefenn Tollur, Skeinkur, og aarlegur Skattur.

21. Þar fyrer giored nu epter þessare Bifalningu, hamled þessum Monnum, so ad Staturenn verde ecke uppbiggdur, þar til ad þad er af mier bifalad.

22. So siaed nu til ad þier forsoomed ydur

ydur ecke hier vöti, so ad Kongurenn ſkaẻ ongvann Skada.

23. Nu sem Brief Artaxerxes Kongs var lesed fyrer Rehum, og Simsai Skrifara, og þeirra Raade, þa fooru þeir jafnsnart upp til Jerusalem, til Gydingaumna, og tœlmudu þeim med Magt og Vallde.

24. So forhindradest Verked a Guds Hwse j Jerusalem, so þar giordest ecke par ad, jun til þess annars Aars Darii Kongs af Persia.

# V. Capitule.

Þad er skrifad til Darii Konungs um Bigging Musteresins.

Enn þeir Spaamenn, Haggeus, og Sacharias, Son Jddo, spaadu til Gydinganna sem voru j Juda og Jerusalem, j Jsraels Guds Nafne.

2. Pa took sig upp Sorobabel,* Son Sealthiels, og Jesua, Sonur Josedeks, og tooku til ad biggia Guds Hwß j Jerusalem, og Guds Spaamenn med þeim sem ad styrktu þa.

*[Hier hefiast Danielis Vikur a Oßru Aare Darii Longimani, fyrer Christi Fæding 451. Aar.]

3. A þeim Tijma kom til þeirra Thathnai Lands-Fovete þessumeigenn Vatnsins, og Sthar Bosnai, og þeirra Raad, og sogdu so til þeirra, Hvor hefur bifalad ydur ad reisa þetta Hwß, og ad uppbiggia þess Mwra?

4. Pa sogdum vier þeim, Hvad þeir Menn hietu, sem ad budu þessa Bigging.

5. Enn Augu Guds þeirra komu yfer Olldunga Gydinganna, ad þad var þeim ecke hamlad þangad til þetta Maal kiæme fyrer Darium, og ein Skrift þar uppa feingest aptur.

6. Enn so hliodade þad Brief sem Thathnai Lands-Fovite þessumeigenn Vatnsins, og Sthar Bosnai, og þeirra Raad af Apharsach, sem ad voru þessumeigenn Vatnsins, sendu til Darium.

7. Og þau Ord hliodudu so sem þeir sendu til hans. Dario Konge allur Fridur!

8. Pad sie Kongenum vitanlegt, ad vier komum j Gydinga Land, til þess Mikla Guds Hwß, hvort ad Menn biggia nu upp med allrahanda Steinum, og leggia Bialka i Veggena, og Verked geingur flux a framm under þeirra Hende.

9. Vier spurdum þa hina Ellstu ad, og sogdum so til þeirra, Hvor hefur bijfalad ydur ad biggia þetta Hwß, og giora þess Mwr?

10. Vier spurdum og hvad þeir hietu, so vier mættum kunngiora þier þad. Og vier hofum uppskrifad þeirra Manna Nofn sem ypparster voru af þeim.

11. Enn þeir gaafu oß soddann Ord til Andsvars, og sogdu, Vier erum Pienarar þess Guds sem rædur yfer Himen og Jord, og vier biggium þad Hwß sem fyrre var biggt, fyrer Morgum aarum, hvort eirn Megtugur Jsraels Kongur hafde uppbiggt og reist.

12. Enn þa vorer Forfedur styggdu Gud a Himnum, þa gaf hann þa j Hond Nabugodonosor, Kongs af Babylon, þess Chaldiska, og hann nidurbraut þetta Hwß, enn burtflutte Folked j Babylon.

13. Enn a þvi Firsta aare Rijkes Cyri, Kongs j Babylon, þa baud sa same Cyrus Kongur, ad Guds Hwß skyllde biggiast.

14. Pviad þau Gullkier, og Silfurkier, sem aadur voru j þessu sama Guds Hwse, hvor Nabugodonosor Kongur took burt wr Guds Mustere j Jerusalem, og liet þau j Mustered j Babylon, þau took Cyrus Kongur burt wr Musterenu j Babylon, og afhendte þau Sesbazar med Nafne, hvorn hann sette Lands-Foveta,

15. Og hann sagde til hans, Tak þesse Kier, og far af Stad, og flyt þau j Mustered j Jerusalem, og laat Guds Hwß biggiast j sijnum Stad.

16. Þa kom þesse Sesbazar, og lagde Grundvollenn til Guds Hwß j Jerusalem, og fra þeim Tijma biggdu Menn, og er enn eige fullbiggt.

17. Og ef þad Kongenum synest so, þa

loate hann leita j Fiesiooda-Hwse Kongsins, sem er j Babylon, hvort þad er bijfalad af Cyro Konge, ad biggiast skyllde Guds Hws j Jerusalem, og send oss Kongsins Meining um þetta.

## VI. Capitule.

Agiætt Svar fra Dario Konge uppa þad Brief um Bigging Mustereſins.

Pa baud Darius Kongur, ad leita skyllde j Canzelienu, j Kongsins Fiehirdslu Hwsum, sem voru j Babylon.

2 Pa fannst j Ahmetha, a þvi Slote sem liggur j Meden, ein Book, og j henne stood eirn Giorningur, so skrifadur.

3. A þvi Firsta aare Cyri Kongs baud Cyrus Kongur ad biggia Guds Hws, j Jerusalem, j þeim Stad sem Menn offrudu, og ad leggia Grundvollenn Sextijge Alna hæafann, og Sextijge Alna breidann.

4. Og Þria Vegge af allrahanda Steinum, og eirn Vegg af Trie. Og ad Kostnadurenn skyllde giefast af Kongsins Hwse.

5. Þar med þau Guds Hwss Gullkier, og Silfurkier, sem ad Nabugodonosor took af Musterenu j Jerusalem, og hafde til Babylon, þau skulu leggiast aptur, so þau sieu hofd aptur j Mustered j Jerusalem, j sinn Stad j Guds Hwse.

6. So vijked nu langt fra þeim Monnum, þu Thathnai Lands-Fovite hinumeigenn Vatnsins, og þu Sthar Bosnai, og ydart Raad af Apharsach, þier sem erud a hina Sijdu Vatnsins.

7. Laated þa þioona ad Guds-Hwse, so ad Gydinganna Lands-Fovitar, og þeirra Olldungar meige uppbiggia Guds Hws j sijnum Stad.

8. Þad er og bifalad af mier, hvad giefast skal Olldungunum af Juda, til ad uppbiggia Guds Hws med, sem er, Menn skulu taka kostgiæfelega af Kongsins Gotse Rentuna hinumeigenn Vatnsins, og giefa þvi sama Folke, og ecke hindra þa.

9. Og ef þeir hafa Þorf a Kaalfum, Lombum, eda Hofrum, til Brennefoorna fyrer Gude a Himnum, Hveite, Sallte, Vijne, og Vidsmiore, epter Prestanna Sidveniu j Jerusalem, þa skal þeim giefast þad daglega, so sem tilheyrer, so ad þad skal eige forsomast.

10. So ad þeir kunne ad hafa ad offra Gude j Himnenum til eins Sæts Ilms, og bidie fyrer Kongsins Lijfe, og hans Barna.

11. Soddan Bifalning er giefenn af mier. Og hvor sa Madur sem ad umbreiter þessum Ordum, af hans Hwse skal takast eirn Bialke, og skal uppreisast, og sa same skal þar a heingiast, og hans Hws skal vera forbroted fyrer Sokunn þess Giørnings.

12. Gud sem byr j Himnenum hann fyrerfare ollum Kongum, og ollu Folke, sem wtrietta sijnar Hendur til ad umbreita og brioota Guds Hws j Jerusalem. Eg Darius hefe þetta boded, so ad þetta verde vandlega frammkvæmt.

13. Þetta giorde Thathnai Lands-Fovite Hinumeigenn Vatnsins vandlega*, og Sthar Bosnai, og þeirra Raadaneyte, til hvorra Darius Kongur hafde sendt.

*[Mustered fullbyggest a Siøtta Aare Darii Longimani, fyrer Christi Fæding 444.]

14. Og þeir hinu Ellstu af Gydingum uppbiggdu, so þad gieck fliott framm, epter Spaadome Haggæi, og Sachariæ, Sonar Iddo, Spaamanna, og þeir biggdu og uppreistu, epter Guds Bifalning, og epter Skipan Cyri, Darij, og Artaxerxis, Konganna af Persia.

15. Og þeir fullkomnudu Hwsed inn til þess Þridia Dags j Adar Maanade,* þad var a þvi Siøtta aare Rijkis Darii Kongs.

* Adar er Martius.

16. Og Israels Born, Prestarner, og Levitarner, og þau onnur Faangelsesins Born, hielldu Vijgslu Guds Huss med Glede.

17. Og þeir offrudu j Kyrkiu Vijgslunne Guds Hwss Hundrad Kaalfum, Tvo Hundrud Lamba, Fiogur Hundrud Hafra, og til Synda-Offurs fyrer allann Israel, Tolf Geythafra, epter Tolu Ættvijsia Israels.

18. Og

18. Og skickudu Prestunum j sijnar Skipaner, og Levitana j sitt Vardhalld, ad þiona þeim Gude sem er j Jsrael, so sem skrifad stendur j Moses Book.

19. Og Fꜳngelsesins Børn hielldu Pꜳska, þann Fiortanda Dag j þeim Firsta Mꜳnade.

20. Þviad Prestarner og Levitarner høfdu hreinsad sig, so þeir voru aller hreiner, so sem eirn Madur, og þeir sæfdu Pꜳska, fyrer øll Fꜳngelsesins Børn, og fyrer Prestana þeirra Brædur, og fyrer sig.

21. Og Jsraels Børn, sem voru aptur komenn vor Fꜳngelsenu, og aller þeir sem sig høfdu skiled fra Heidingianna Saurugleika j Landenu, ad leita DROTTins Guds Jsraelis,

22. Þeir ꜳtu og hielldu Osyrdra Brauda Hꜳtijd j Siø Daga, med Fagnade; þviad DROttinn hafde giort þa glada, og snwed Kongsins Hiarta af Assyria til þeirra, so þeir urdu styrkver j Guds Hwss Giørninge, sem er Jsraels Gud.

## VII. Capitule.

Esdras fær Skriflega Skickun fra Artaxerxes Kongi til Rentumeistaranna um Eitt og Annad sem þurfte vid til Guds Þionustu.

Epter þessa Adburde, j Tijd Artaxerxis Kongs Rijkis, þa hann var Kongur j Persia, þa foor af Babylon Esdras, Son Seraja, Sonar Asarja, Sonar Hilkja.

2. Sonar Sallum, Sonar Zadoks, Sonar Ahithobs,

3. Sonar Amarja, Sonar Asarja, Sonar Merajoth,

4. Sonar Sera, Sonar Usi, Sonar Buki,

5. Sonar Abisua, Sonar Phinees, Sonar Eleasar, Sonar Aarons þess ypparsta Kiennemans.

6. Þesse Esdras foor upp fra Babylon, hvør ed var vel skickanlega Skriftlærdur j Moses Løgmꜳle, sem DRottinn Jsraels Gud hafde giefed. Og Kongurenn gaf honum allt þad hann gyrntest, epter hans DROTTins Guds Hende sem yfer honum var.

7. Og þar fooru nockrer af Jsraels Børnum, og Prestar og Levitar, Saungvarar, Dyraverder, og Nethinim, upp til Jerusalem, a þvi Siounda ꜳre Artaxerxis Kongs.

8. Og þeir komu til Jerusalem a þeim Fimmta Mꜳnade, þad var a þvi Siounda ꜳre Kongsins.

9. Þviad a þeim firsta Deige hins firsta Mꜳnadar ꜳsette hann ad ferdast frꜳ Babylon, og a þann firsta Dag j þeim fimmta Mꜳnade kom hann til Jerusalem, epter Godre Guds Hønd, sem yfer honum var.

10. Þviad Esdras sette sier fyrer j Hiarta ad leita Løgmꜳls DROTTins, og ad giøra, og ad kienna þeim j Jsrael Bodordenn og Riettindenn.

11. Og þetta er Innehalld Briessins sem Kongurenn Artaxerxes gaf Esdræ Kiennemanne, þeim Skriftlærda, sem ad var eirn Lærare j DROTTins Orde, og j hans Bodordum j Jsrael.

12. Artaxerxes Kongur allra Konga, Esdræ Kiennemanne og þeim Skriftlærda j Guds Løgmꜳle af Himnenum. Fridur og Heilsan!

13. So er skipad af mier, ad Aller þeir sem velviliuger eru til, j mijnu Rijke, af Jsraels Folke, Prestar og Levitar, ad ferdast til Jerusalem, þeir skulu fara med þier.

14 Þu sem ert sendur af Kongenum, og af þeim sio Rꜳdherrum, ad vitia Juda og Jerusalem, epter Guds Løgmꜳle, hvort ad er under þinne Hende.

15. Og ad þu taker med þier Gull og Silfur, þad sem Kongurenn og hans Rꜳdherrar viliuglega giefa Jsraels Gude, hvørs Heimele ad er j Jerusalem.

16. Og allrahanda Gull og Silfur, þad þu kannt ad fꜳ, j øllum Babylonis Landsꜳlfum, þad sem Folked og Prestarner vilia viliuglega giefa til Guds Huss j Jerusalem.

17. Tak þad alltsaman med þier, og kaup

med athygle med þeim somu Peningum, Kalfa, Lemb, Hafra, Matoffur og Dryckiaroffur, so þad offrest yfer Alltared hiaydar Guds Huse j Jerusalem.

18. Þar ad auke, hvad þier og þijnum Brædrum þyker ad gioraſt ſkule af þeim Peningum sem epter eru, þa giored þad epter ydars Guds Vilia.

19. Og þau Kier sem þier eru afhendt til þionustugiordar j þijns Guds Huse, þau ſkallt þu afhenda fra þier fyrer Gude j Jerusalem.

20. Og hvad sem meira Þorf gioreſt til þijns Guds Huſs, og þier kiemur til ut ad giefa, þa lattu giefaſt af Kongſins SkattHuse.

21. Eg Artaxerxes Kongur hefe bifalad Skatta Hofdingium hinumeigenn Vatnſins, ad hvad sem helſt Esdras Kiennemadur og Skriftlærdur j Guds Logmale af Himnum krefur af ydur, þa giored þad med koſtgiæfne.

22. Allt til Hundrad Centener Silfurs, Hundrad Cor Hveites, og Hundrad Bath Vijns, og Hundrad Bath Vidſmiors, og Sallt an mælers.

23. Allt þad sem heyrer til Guds Logmale af Himnenum, ad þad gioreſt vandlega til Guds Huſs a Himnenum, So ad eige kome Reide yfer Kongſins Rijke og hans Born.

24. Þa ſkulud þier og vita, ad þier hafed ongva Magt ad leggia nockurn Skatt, Toll, edur arlegt utgialld uppa nockurn Kiennemann, Levita, Saungvara, Dyraverde, Nethinim, og Þienara j þeſſa Guds Huſe.

25. Og þu Esdra ſkallt epter þijns Guds Vijsdome ſetia Domendur og Fovita, af þeim sem eru under þinne Hende, ad dæma yfer ollu þvi Folke sem er hinumeigenn Vatnſins, ad aller vite þijns Guds Log, og hvorier þau ecke vita þeim ſkulud þier kienna þau.

26. Og aller þeir sem ecke giora þijns Guds Logmal med athygle, og Kongſins Log, þeir ſkulu fa ſinn Doom fyrer ſinn Giorning, hvort þad er helldur til Daudans eda Veſælldar, eda til ſijns Gots Fortopunar, eda til Fangelſis.

27. DROttinn Gud vorra Fedra sie Lofadur, sem ad þvilijkt hefur giefed Kongenum j Hiartad, ad hann vill pryda DROttins Hus j Jerusalem.

28. Og hefur hneigt ſijna Miſkunſemd til mijn, fyrer Kongenum og hans Radsherrum, og ollum Kongſins Villdarmonnum. Og eg vard hughrauſtur epter DRottins mijns Guds Hende yfer mier, og ſamanſafnade Hofdingiunum af Jſrael, ad þeir fære upp med mier.

## VIII. Capitule.

Luckuleg Reiſa Esdræ fra Perſialande til Jeruſalem.

Þeſſer eru Hofdingiar Fedranna hvorier reiknader voru, sem ad fooru upp med mier fra Babylon, a þeim Tijma sem Kong Artaxerxes rijkte.

2. Af Bornum Phinees, Gerſom. Af Bornum Jthamar, Daniel. Af Bornum Davids, Hattus.

3. Af Bornum Sechania, og Bornum Pareos, Sacharia, og med honum voru reiknader Hundrad og Fimmtijge.

4. Af Bornum PahathMoab, Elioenai, ſon Serahia, og med honum Tvo Hundrud Karlmenn.

5. Af Bornum Sechania, ſonur Jehaſiels, og med honum Þriu Hundrud Karlmenn.

6. Af Bornum AdinEbeds, ſon Jonathans, og med honum Fimmtijge Karlmenn.

7. Af Bornum Elams, Jeſaia, ſon Athalia, og med honum Siotijge Karlmenn.

8. Af Bornum Sephatia, Sebadia, ſon Michaels, og med honum Attatijge Karlmenn.

9. Af Bornum Joabs, Obadia, ſon Jehiels, og med honum Tvo Hundrud og atian Karlmenn.

10. Af Bornum Selomith, ſon Joſiphia, og med honum Hundrad og Sextijge Karlmenn. Af

11.

11. Af Bornum Bebai, Sacharia, son Bebai, og med honum aatta og Tuttugu Karlmenn.

12. Af Bornum Asgad, Johanan sa yngste son, og med honum Hundrad og Tiju Karlmenn.

13. Af sijdurstu Bornum Adonikams sem hietu Eliphelet, Jehiel og Semaia, og med þeim Sextiju Karlmenn.

14. Af Bornum Bigevai, Uthai, og Sabud, og med þeim Siotijge Karlmenn.

15. Og eg safnade þeim til Vatnsins sem rennur til Aheva, og þar vorum vier j þria Daga, Og þa eg athugade Folked og Prestana þa fann eg øngvann Levita þar.

16. Þa senda eg af stad Eliezer, Ariel, Semaia, Elnathan, Jarib, Elnathan, Nathan, Sacharia, og Mesullam, þa ypparstu, og Joiarib, og Elnathan, þa Lærendur.

17. Og eg utsende þa til Iddo, sem var Hofdinge j Casphia, ad þeir skylldu sækia oss Þienara til Vors Guds Huss. Og eg lagde fyrer þa hvad þeir skylldu tala vid Iddo, og hans Brædur þa Nethinim j Casphia.

18. Og þeir færdu oss, epter Vors Guds goodre Hende yfer oss, einn lærdann Mann, af Bornum Maheli, sonar Levi, sonar Israel, Serebia, med sijnum Sonum og Bræðrum, þeir voru aatian.

19. Og Hasabia, og Jesaia med honum, af Bornum Merari, med sijnum Bræðrum, og þeirra Sonum Tuttugu.

20. Og af þeim Nethinim, sem David og Hofdingiarner settu til ad þioona Levitunum, Tvo Hundrud og Tuttugu, alla nefnda med Nafne.

21. Og eg liet uthroopa þar eina Føstu hia Vatnenu Aheva, og vier audmyktum oss fyrer vorum Gude, ad spyriast epter riettum Veige af honum fyrer oss og vor Born, og allt vort Gots.

22. Þvi ad eg skammadest n[illegible] ad bidiast epter Filgdarmonnum og Riddara lide af Kongenum, oss til verndar fyrer vorum Ovinum a Veigenum. Þviad vier hofdum sag til Kongsins, Vors Guds Hond er alltijd til besta yfer ollum þeim sem hans leita, Og hans Stirkleike og Reide yfer ollum þeim sem hann yfergiefa.

23. Og vier føstudum og leitudum sodan til Vors Guds, og hann heyrde oss.

24. Og eg utvalde Tolf af þeim ypparstu Kiennemonnum, Serebiam og Hasabiam, og Tiju af þeirra Bræðrum med þeim.

25. Og eg vog þeim ut þad Silfur og Gull, og Kierenn til Upplyptingar j Vors Guds Hus, hvor ad Kongurenn, og hans Raadsherrar, og Hofdingiarner, og aller Israelis Menn, sem þar voru, hofdu giefed til upplyptingar.

26. Og eg feck þad þeim j þeirra Hendur uppa Vigt, Sex Hundrud og Fimmtijge Centener Silfurs, og j Silfurkierum Hundrad Centener, og Hundrad Centener j Gulle.

27. Og Tuttugu Bikara af Gulle, hvorier ad vogu Þusund Gyllene, og Tvo kostuleg Koparkier, so kloar sem Gull.

28. Og eg sagde til þeirra, Þier erud Gude Helgader, so eru og Kierenn Heiløg, lijka so Gull og Silfur, þad sem viliuglega er giefed DROTTne ydar Fedra Gude.

29. Þar fyrer vaked nu og vardveited þetta, þar til þier veged þad ut aptur fyrer þeim Ypparstum Kiennemonnum og Levitum, og þeim hellstum Fedrum a medal Israel j Jerusalem, j DROttins Huss Hirdslu.

30. Sijdan medtoku Kiennemennerner og Levitarner þetta hid sama vegna Silfur og Gull, og Kierenn, til ad flytia þad til Jerusalem, til Vors Guds Huss.

31. Sijdan tookum vier oss upp fraa Aheva Vatne, þann Tolfta Dag j þeim firsta Maanade, * ad vier færum til Jerusalem. Og Vors Guds Hond var yfer oss, og frelsade oss fraa vorra Ovina Hondum, og fraa þeim sem saatu um oss a Veigenum.

* [ 12. Dag Apriiis.

32. So komum vier til Jerusalem, og vorum þar j þria Daga.

33. Enn a þeim fiorda Deige var Silfred, Gulled, og Kierenn, veged j Vors Guds Hwse, under Hende Meremoth, sonar Uria Kiennemanns, og med honum var Eleasar, son Phinees, og med þeim Josabad, son Jesua, og Noadia, sonur Benui Levita,

34. Epter hvors Tolu og Vigt, Enn Vigtenn var uppskrifud øll a þeim Tijma.

35. Og Fangelsesins Børn, sem komenn voru af Fangelsenu, offrudu Israels Gude Brennefoornum, Tolf Uxum fyrer allann Israel, Sex og Nijutijge Hrwtum, Sio Lømbum og Siotijge, Tolf Hofrum til Syndaoffurs, allt saman til Brennefoornar fyrer DROttne.

36. Sijdan afhendtu þeir Kongsins Embættismonnum og Lands-Fovitum þessumeigenn Vatnsins, Kongsins Brief og Bifalning, og þeir upphoofu Folked og Guds Hws.

# IX. Capitule.

Audmyktarfull og Gudrækeleg Bæn Esdræ til DRottens fyrer Gydingunum.

Pa allt þetta var frammkvæmt geingu þeir hinu Yppurstu til mijn, og sogdu, Israels Folk og Prestarner, og Levitarner eru eige skilder fra Folkenu j Londonum, epter þeirra Svijvirdingum, Sem er Chananiter, Hethiter, Pheresiter, Jebusiter, Ammoniter, Moabiter, Egyptar, og Amoritar.

2. Þviad þeir hafa teked þeirra Dætur og Syne, og saman blandad þvi Heilaga Sæde vid Landsins Folk, og Hendur Hofdingianna og Roadsherranna voru hellstar j þessum Misgiorninge.

3. Enn sem eg þetta heyrde þa reif eg mijn Klæde jsundur, og minn Kyrtel, eg reif og mitt Hofudhoar, og Skiegg af, og sat einsamall.

4. Enn aller, þeir sem ottudust DRottins Israelis Guds Ord, sofnudust til mijn, sokum þvilijkrar stoorrar Yfertrodslu, og eg sat einsamann allt til Kvolld-Offurs.

5. Enn um Kvolld-Offurs Tijmann stood eg upp af minne Eymd, sundurreif mijn Klæde, og minn Kyrtil, og fiell a mijn Knie, og wtbreiddi mijnar Hendur til Drottins mijns Guds,

6. Og sagde. GUd Minn! Eg skømmunst mijn og blydgast ad upplypta mijnum Augum til þijn, Minn GUd, þviad vorar Synder eru vaxnar yfer vort Hofud, og vor Sok er stoor, allt upp til Himensins.

7. Fra Tijd vorra Forfedra hofum vier vered j stoorum Sokum, allt til þessa Dags, og fyrer Saker vorra Misgiorninga erum vier, og vorer Kongar, og Kiennemenn, giefner j Konganna Hendur j Londonum, og j Sverd, og j Fangelse, j Roan, og j Skomm vors Andlitis, so sem þad geingur til a þessum Deige.

8. Enn nu er oss ein lijtel og skiootleg Noad skien af vorum DRottne Gude, ad þar eru enn nu nockrer af oss epter ordner, og undann komner, so hann gaf oss eirn (a) Nagla j sijnum Heilaga Stad, so ad vor GUd upplyste vor Augu, og giæfe oss eitt lijted Lijf, þar sem vier þioonudum.

(a) (Nagle og Gyrding) Er talad epter mœlshætte, ad oll onnur Lond og Lyder eru um Koll vorpud, enn Israel epter ordenn, so sem eirn Nagle af einu Huse, eda ein Gyrding af Landar eign.

9. Þvi vier erum Þienarar, og Vor GUD yfergaf oss ecke, þo vier sieum Þienarar, og Hann hefur snwed Miskunseme til vor, fyrer Kongunum j Persia, ad þeir loata oss lifa, og hafa upphafed Vors Guds Hws, og endurbætt þess Nidurfall, og giefed oss eina Gyrding j Juda og Jerusalem.

10. Nu, Hvad skulum vier seigia? Vor Gud! sokum þess, ad vier hofum yfergiefed þijn Bod,

11. Sem þu hefur boded og sagt vid þijna Þienara, Spoamennena, Pad Land, j hvort þier innkomed til ad erfa, þad er eitt Saurugt Land, sokum Folksins ohreinleika j Londonum, j þeirra Svijvirdingum, med

hvoriu þeir hafa þad fullt giort med Svijvirdingar, bæde hier og þar.

12. So skulud þier nu ecke giefa ydar Dætur þeirra Sonum, eige helldur skulud þier taka þeirra Dætur handa ydar Sonum, og leited ecke þeirra Fridar nie Gooda Æfinnlega, so ad þier verded megtuger, og eted af þeim Giædum j Landenu, og giefed þad ydar Afkvæme til Arfs Æfinnlega.

13. Og epter allt þad sem komed er yfer oss, fyrer vorra vondra Giorninga Saker, og søkum vorra storra Synda, þa hefur Þu Vor GUD! þirmt vorum Misgiorningum, og giefed oss eina Frelsan, so sem þar nu til stendur.

14. Enn vier hofum umsnwed oss, og forlaated þijn Bod, ad vier hofum teingt oss vid þad Folk þessara Svijvirdinga. Villtu þa vera Reidur vid oss, þar til þad er med ollu vote, ad þar er eckert epter, edur nockur Vidhioalp?

15. DROTTinn Jsraels GUD! Þu ert Riettlaatur, þviad vier erum epter ordner til ad frelsast, so sem þad er a þessum Deige, Sioa nu! vier erum fyrer þier j vorre Skulld, þvi eingenn kann ad standast fyrer þier þess vegna.

# X. Capitule.

Gydingar laata þær Heidnu Konur burt fra sier.

Enn sem Esdras hafde so beded og jaatad, griet, og laa fyrer Guds Hwse, þa samansafnadest eirn mikell Mannfiolde til hans af Jsrael, Menn, Kvinnur, og Born, þvi Folked griet miog.

2. Enn Sachania, Son Jehiel, af Bornum Elam, svarade og sagde til Esdram, Vier hofum misgiort jmoote vorum Gude, j þvi, ad vier høfum teked oss Annarlegar Eigennkonur af Landsins Folke, Nu, þar er enn Von j Jsrael yfer þessu.

3. Giorum þvi eitt Saattmaal vid Vorn Gud, ad vier laatum fra oss allar þessar Kvinnur, og þad sem fædt er af þeim, epter DROTTins Raade, og þeirra sem ad oottast Vors Guds Bodord, so ad giort sie epter Løgmaalenu.

4. Þvi tak þig upp, þad ber þier, vier vilium filgia þier vert hughraustur, og gior þad.

5. Þa stod Esdras upp, og tok eirn Eid af þeim yppurstu Kiennemønnum og Levitum, og af ollum Jsrael, ad þeir skylldu giora epter þessum Ordum. Og þeir sooru.

6. Og Esdras stood upp fyrer Guds Hwse, og gieck jnn j Herberge Johanan, Sonar Eliasib, og þa er hann kom þar jnn, þa villde hann einskis Brauds neyta, nie Vatn drecka, þvi hann griet þeirra Yfertrodslu, sem j Faangelsenu hofdu vered.

7. Og þeir lietu wthroopa j Juda og Jerusalem, til allra þeirra Barna sem fongud hofdu vered, ad þau skylldu samansafnast til Jerusalem.

8. Og hvor sem ecke kiæme jnnan Þriggia Daga, epter Raade þeirra hinna yppurstu, og ellstu, þeirra Eigner skyllde uppnæmar verda, og sa skyllde frafkiliast fra Samlage þeirra Herteknu.

9. Þa komu saman aller Menn af Juda, og BenJamin, til Jerusalem, j Þria Daga, þad var a þeim Tuttugasta Deige j þeim Nijunda Maanude *, og allt Folked sat a Strætenu wte fyrer Guds Hwse, og skalf, søkum þessa Maalefnis, og søkum Regns.

* Lands Þing hallded af Esdra, um þær Annarlegu Kvinnur 20. Decembris.

10. Og Esdras Kiennemadur reis upp, og sagde til þeirra, Þier hafid misgiort, j þvi, ad þier tookud Annarlegar Eigennkonur, og hafid auked hier med Jsraelis Synd.

11. Þar fyrer vidurkienned nu DROttne ydra Fedra Gude, og giøred þad honum þocknast, og skilied ydur fra Landsins Folke, og fra þeim Annarlegum Eigennkvinnum.

12. Þa svarade allur Almwgenn, og sagde med haarre Raustu, Verde so sem þu hefur sagt oss.

13. Enn Folked er margt, og Votvidre er, og maa eige standa wte, so er þad og eige helldur eins Dags Verk, edur Tveggia, þviad

þviad vier høfum giørt mikla þessa Yfertrodslu.

14. Lœatum oss tilsetia vora Hofdingia medal alls Almwogans, ad þeir aller sem eru j vorum Stødum, og til sijn hafa teked Annarlegar Kvinnur, kome hingad a tilsettum Tijma, og med þeim Ølldungarner sierhvørs Stadar, og þeirra Dómendur, þar til ad Vors Guds Reide vendest fra oss, sokum þessarar Skulldar.

15. Pa voru tilsetter Jonathan, Son Asahel, og Jehasia, Son Tikua, yfer þetta Mœalefne, og Mesullam, og Sabthai Levitar hiœalpudu þeim.

16. Og Herleidingarennar Børn giørdu so. Og Esdras Kiennemadur, og þeir ypparstu Fedur j þeirra Fedra Hwse, og þeir aller sem nu eru nefnder, skildu þa ad, og settu sig til a þeim Firsta Deige j þeim Tijunda Mœanade, ad rannsaka þetta Mœalefne.

17. Og þeir fullkomnudu þetta hiœa øllum Mønnum, þeir sem œattu Annarlegar Kvinnur, allt til þess Firsta Dags j þeim Firsta Mœanade.

18. Og þad urdu fundner a medal Prestanna Barna, sem ad teked høfdu Annarlegar Kvinnur, sem ad voru a medal Barna Jesua, Sonar Josedeks, og hans Brœdra, Maeseia, Elieser, Jarib, og Gedalia.

19. Og þeir gœafu sijna Hønd þar uppa, ad þeir skylldu wtreka þessar Kvinnur, og giefa eirn Hrwt til Synda-Offurs, fyrer þeirra Søk.

20. A medal Barna Immer, Hanani og Sebadia.

21. A medal Barna Harim, Maeseia, Elia, Semaia, Jehiel, og Usia.

22. A medal Barna Pashur, Elioenai, Maeseia, Ismael, Nethaneel, Josabad, og Eleasa.

23. A medal Levitanna, Josabad, Simei, Kelaia, (hann er Klita,) Petachia, Juda, og Eliezer.

24. A medal Saungvaranna, Eliasib, enn a medal Dyravardaranna, Sallum, Telem, og Uri.

25. Af Israel, a medal Barna Pareos, Ramia, Jesia, Malchia, Meiamin, Eleasar, Malchia, og Benaia.

26. A medal Barna Elam, Mathania, Sacharia, Jehiel, Abdi, Jeremoth og Elia.

27. A medal Barna Sathu, Elioenai, Eliasib, Mathania, Jeremoth, Sabad, og Asisa.

28. A medal Barna Bebai, Johanan, Hanania, Sebai og Athlai.

29. A medal Barna Bani, Mesullam, Malluch, Adaia, Jasub, Seal, og Jeramoth.

30. A medal Barna Pahath, Moab, Adna, Chelal, Benaia, Maeseia, Mathania, Bezaleel, Benui, og Manasse.

31. A medal Barna Harims, Elieser, Jesia, Malchia, Semaia, Simeon.

32. BenJamin, Malluch, og Samaria.

33. A medal Barna Hasum, Mathnai, Mathatha, Sabad, Elipheleth, Jeremai, Manasse, og Simei.

34. A medal Barna Bani, Maedai, Amram, Huel.

35. Benaia, Bedia, Chelui.

36. Vania, Meremoth, Eliasib.

37. Mathania, Mathnai, Jaesau.

38. Bani, Benui, Simei.

39. Selemia, Nathan, Adaia.

40. Machnadbai, Sasai, Sarai.

41. Asareel, Selemia, Samaria,

42. Sallum, Amaria, og Joseph.

43. A medal Barna Nebo, Jeiel, Mathithia, Sabad, Sebina, Jaddai, Joel og Benaia.

44. Þesser aller høfdu teked Framande Kvinnur, og þar voru nockrar þær Kvinnur af þessum sem Børn høfdu œatt.

Ender œa Bookenne Esdræ.

Nehe-

# Nehemiæ Book.

## I. Capitule.

Inneleg og Alvarleg Bæn Nehemiæ til DRottins, fyrer Gydingum.

Þesser eru Giorningar Nehemiæ, sem var Sonur Hachalia. Þad skiede j þeim Mœnude Chislef,* a þvi Tuttugasta Aare, ad eg var a Slotenu j Susan.
* [Chislef er December.]

2. Þa kom Hanani, eirn af mijnum Brædrum, og nockrer Menn med hønum, fra Juda. Og eg spurda þa ad, Hvørnenn þad geinge þeim Gydingum, sem ad frelsader eru, og epter eru ordner af þvi Fangelse, svo og lijka, Hvørnen ad til geinge j Jerusalem?

3. Enn þeir søgdu til mijn, ad þeir sem epter eru af Fangelsenu, þeir eru þar j Landenu j stoorre Olucku og Fyrerlitningu. Murvegger Jerusalem eru nidurbrotner, og hennar Port uppbrennd med Ellde.

4. Enn sem eg heyrde soddan Ord sat eg, og griet, og syrgde j Tvo Daga, og fastade, og eg badst fyrer, fyrer Gude a Himnum,

5. Og sagde, Æ DROTTinn Gud a Himnum! Þu hinn Mikle og Hrædelege Gud, sem ad hélldur Sattmaala og Miskun vid þa sem hann elska, og hans Bodord vardveita.

6. Laat þo þijn Eyru merkia þetta, Og þijn Augu vera openn, so ad þu heyrer Bæn þijns Þienara, sem eg bid j Auglite þijnu Dag og Noott, fyrer þijnum Þienurum Israels Børnum, og eg medkienne Synder Israelis Barna, sem vier høfum giort a moote þier. Og eg og mijns Fodurs Hws høfum og syndgast.

7. Vier høfum forsied oss miog vid þig, ad vier høfum ecke hallded þau Bodord, Bifalningar, og Riettinde, sem þu hefur boded þijnum Þienara Mosi.

8. Enn minnst þu þo a þad Ord sem þu baudst þijnum Þienara Mose, og sagder, Nær þier misgiored, þa vil eg dreifa ydur a millum Þiodanna.

9. Enn ef þier snwed ydur til mijn og hallded mijn Bodord, og giored þau, og þo þier værud utrekner til Himensins Enda, þa vil eg þo safna ydur saman þadan, og færa til þess stadar sem eg hefe utvaled, ad mitt Nafn þar bwe.

10. Þeir eru þo þijner Þienarar, og þitt Folk, hvørt þu hefur frelsad med mikillre Magt, og þinne megtugre Hende.

11. O DROTTinn! Laat þijn Eyru giætur giefa ad Bæn þijns Þienara, og ad Bæn þinna Þienara, þeir sem gyrnast ad ottast þitt Nafn, og laat þijnum Þion j Dag luckast, og gief hønum Miskun fyrer þessum Manne, þviad eg var Kongsins Skeinkiare.

## II. Capitule.

Nehemias kemur med miklum Fagnude til Jerusalem.

A þvi Tuttugasta Aare Artaxerxes Kongs, j þeim Mœnade* Nisan, þa Vijned stood fyrer hønum, þa took eg Vijned upp, og riette eg þad ad Kongenum, og eg sa miog sorglega wt fyrer hønum.
* [Nisan. Aprilis.]

2. Þa sagde Kongurenn til mijn, Þvi ert þu so dapur ad siaa, þu ert þo ecke siukur? Þad er eige þess kins, Hélldur ert þu Hugsiwkur. Og eg vard miog oottasleigenn.

3. Og eg sagde til Kongsins, Kongurenn life æfenlega! Skyllde eg ecke dapur vera? Su Borgenn sem minna Fedra greftrunar Hws er, liggur j eyde. Og hennar Port eru uppeydd med Ellde.

4. Þa sagde Kongurenn til mijn, Epter hvoriu beidest þu þa? Þa bad eg Gud a Himnum,

5. Og eg sagde til Kongsins, Sie þad Kongsins vilie, og þocknest þinn Pienare þier, ad þu vilier þa senda mig til Juda, til minna Fedra Legstadar, ad eg mætte uppbiggia hann.

6. Pa svarade Kongurenn mier, og Drottningenn, sem sat hia honum, Hvorsu leinge verdur þu j burtu? Og nær villt þu koma aptur? Og þad þocknadest Kongenum, so ad hann sende* mig af stad. Og eg sette honum akvedenn Tijma.

* [Nehemias var sendur a 20. Aare Darii Longimani, ad uppbiggia Jerusalem, fyrer Hingad Burdenn Christi 433. Aar:]

7. Og eg sagde til Kongsins, Sie þad Kongsins Vilie, þa giefe hann mier Brief til Lands Fovitanna, sem hinumeigen Vatnsins eru, ad þeir filge mier þar yfer um, þar til eg kiem j Juda.

8. Og Brief til Assaphs Kongsins Hofdingia yfer Skooguunum, ad hann giefe mier Vidu til Bialka, til Portanna j Hollena, sem er j Hwsunum, og hia Stadarmwrunum, og til þess Hwssens j hvort eg fer. Og Kongurenn gaf mier epter þvi sem mijns gooda Guds Hond var yfer mier.

9. Og sem eg kom til Lands-Fovitanna hinumeigenn Vatnsins fieck eg þeim Kongsins Brief. Og Kongurenn sende Hofuds-Menn og Riddaralid med mier.

10. Enn sem Saneballat Horoniter, og Tobias eirn Ammonita Pienare, heyrdu þvilijkt, þa gramdest þeim miog vid þetta, ad þar var eirn Madur komenn, sa goods villde leita Jsraelis Bornum.

11. Enn sem eg kom til Jerusalem, og hafde vered þar j þria Daga,

12. Tok eg mig upp um Noott, og faaer Menn med mier, Þviad eg sagde ongvum Manne, Hvad minn Gud hafde giefed mier j Sinne ad giora j Jerusalem, Og þar var eckert Dyr med mier, utan þad sem eg reid a.

13. Og eg reid um Noottena vt af þvi Dalsportenu, vt ad Dreka Brunne, og til þess Myktu Ports, og þad angrade mig ad Jerusalems Mwrvegger voru nidurbrotner, og Borgarhlidenn uppbrennd med Ellde.

14. Og eg gieck yfer til Brunnportsins, og til Kongsins Fiskedykes, og þar var eckert rwm, ad mitt Dyr kynne ad ganga framm under mier.

15. Pa foor eg um Noottena, ad Læknum, og þad angrade mig, ad sia so Mwrana, og eg snere mier, og kom so heim aptur ad Dalportenu.

16. Enn Fyrermennerner vissu ecke hvort eg var farenn, eda hvad eg giorde. Þviad allt hier til hafde eg ecke neitt sagt Gydingunum, Prestunum, Herrunum, og þeim yppurstum, edur nockrum ødrum sem voru ad Verkenu.

17. Og eg sagdt til þeirra, Pier siaed j hvørre Olucku ad vier erum stadder, ad Jerusalem er j eyde, og hennar Port eru uppbrennd med Ellde. Komed og biggium upp Mwra Jerusalem, so vier sieum ecke leingur ein Forsmaan.

18. Og eg kunngiorde þeim mijns Guds Hond, hvor ed good var yfer mier, So og Kongsins Ord, sem hann sagde til mijn. Og þeir søgdu so, Tokum oss upp, Og vier biggdum, og þeirra Hendur stirktust til hins gooda.

19. Enn sem þeir Saneballat Horoniter, og Tobia sa Ammoniters Pienare, og Gosem Araber, heyrde þetta, þa spottudu þeir oss og forøktudu, og søgdu, Hvad er þad sem þier giored? Vilied þier enn falla fra Kongenum?

20. Pa svarade eg þeim, og sagde, Gud a Himnum mun laata oss þetta vel luckast, þvi vier hans Pienarar høfum teked oss upp, og biggium, En þier eiged eckert Hlutskipte, nie Riettinde, nie nockra Minning j Jerusalem.

## III. Capitule.

Bygging Musteresins hefur godann Framgang med Tilsion Prestanna.

Og Eliasib Kennemannahofdinge took sig upp med sijnum Brædrum Prestunum, og

og uppbiggdu Sauda Ported. Þeir helgudu þad, og binggu um Portdyrnar, og helgudu þad allt til Turnsins Mea, sem er, allt ad Turne Hananeel.

2. Hia honum biggdu Menn af Jericho, og hia honum Sachur, son Imri.

3. Enn Born Senaa biggdu upp Fiske-ported, og þoktu þad, og settu þar fyrer Hurd, Laasa, og Grindur.

4. Og hia þeim uppbiggde Meremoth, son Uria, sonar Hakoz, og Mesullam, son Berechia Mesesabeel sonar, biggde hia þeim. Hia þeim biggde Zadok, son Baena.

5. Hia þeim biggdu þeir af Thekoa. Enn þeirra Vollduger logdu ecke sijna Hálsa under þionustu sijns Herra.

6. Pad gamla Port uppbiggde Jojada, son Passea, og Mesullam, son Besodia, Þeir þoktu þad, og settu fyrer Hurd, Laasa, og Grindur.

7. Hia honum biggde Melatha af Gibeon, og Jadon af Merono, þeir Menn af Gibeon og Mizpa, hia Landsfovitans Stoole, þessumeigenn Vatnsins.

8. Hia honum uppbiggde Usiel Gullsmidur, son Harhaia. Hia þeim biggde Hanania, sonur Smyrslamakarans, og þeir biggdu j Jerusalem, allt ad þeim breida Mwr.

9. Hia þeim biggde Rephaia, son Hur, Hofdinge hálfs Fiordungs j Jerusalem.

10. Enn hia honum biggde Jedaja, son Harumaph, þvert yfer fraa hans Huse. Hia honum biggde Hattus, son Hasabenia.

11. Enn Malchia, son Harim, og Hasub, son Pahath Moab, biggdu Tvo Parta, og Turnenn hia Ofnunum.

12. Hia honum biggde Sallum, son Halohes, Hofdinge yfer hálfum Fiordunge j Jerusalem, hann og hans Doottur.

13. Dalported biggde Hanun, og Borgararner af Sanoah, þeir biggdu þad, og settu Dyr fyrer med Laasum, og Grindum, og Þusund alna a Mwrnum, allt til Mykiu Portsins.

14. Enn Mykiu Ported uppbiggde Malchia, son Rechab, Fiordungs Hofdinge Vijngardsins, Hann biggde þad og sette fyrer Hurder, Laasa, og Grindur.

15. Enn Brunnported biggde Sallum, son Chalhose, Fiordungs Hofdinge j Mizpa, Hann biggde þad, og þakte, og liet fyrer Hurd, Laasa, og Grindur, Par med Mwrenn hia Siloah Fiskdijke, hia Kongsins Alldengarde, allt ad þeim Troppum sem liggia nidur hia Davids Stad.

16. Epter hann biggde Nehemia, son Asbuk, Hofdinge yfer Hálfpartenum j Bethzur, allt til þess giegnt Davids Grofum, og allt ad Fiskadijke Asuia, og allt ad Kappanna Hwse.

17. Næst honum biggdu Levitarner, Rehum, son Bani, Næst honum biggde Hasabia, Hofdinge hálfs Fiordungsins j Kegila, j sijnum Fiordunge.

18. Næst honum biggdu þeirra Brædur Banai, son Henadad, hálfs Fiordungs Hofdinge j Kegila.

19. Næst honum biggde Eser, Son Jesua, Hofdinge j Mizpa, Tvo Parta, allt ad þvi Vike giegnt Vopna Hwsenu.

20. Næst honum a Biargenu biggde Baruch, Son Sebaim, Tvo Hlute j Vikenu, allt til Hwsdyra Eliasib ypparsta Kiennemans.

21. Næst honum biggde Meremoth, Son Uria, Sonar Hakoz, Tvo Hlute fra Eliasibs Hwsdyrum, og allt til endans a Eliasibs Hwse.

22. Epter hann biggdu Prestarner, þeir Menn af Sliettunne.

23. Epter þa biggde BenJamin og Hasub, þvert yfer fra þeirra Hwsum. Epter þa biggde Asaria, Son Maeseia, Sonar Anania, hia sijnu Hwse.

24. Næst honum biggde Benui, Son Henadad, Tvo Parta, fra Assaria Hwse, allt til þess Afkima, og jnn til Hornsins.

25. Palal, Son Usai, moot Afkimanum, og þeim Háfa Turne sem sieft fra Kongsins Hwse,

Hwse, hiaa Mirkvastofu Gardenum. Epter hann biggde Pedaia, Son Pareos.

26. Enn þeir Nethinim binggu hiaa Ophel, allt til Vatnsportsins jmoote Austre, þar sem Turnenn stendur framm.

27. Epter hann biggdu þeir af Thekoa, Tvo Hlute moote þeim stoora Turne, sem þar frammgiæest, og allt ad Murnum Ophel.

28. Enn fra Hesta Portenu biggde hvor Kiennemannanna giegnt sijnu Hwse.

29. Epter hann biggde Zadok, Son Jmmer, giegnt sijnu Huse. Epter hann biggde Semaia, Son Sechania, Dyravordur, jmoot Austre.

30. Epter hann biggde Hanania, Son Selemia, og Hanun, Son Zalaph, hinn Siötte, Tvo Hlute. Epter hann biggde Mesullam, Son Berechia, giegnt sinne Fiehirdslu.

31. Epter hann biggde Malchia, Son Gullsmidsins, allt ad Hwse Nethinim, og Kaupmanna, giegnt Raads Portenu, og til Salsins hiaa Hornenu.

32. Og a mille Salsins hiaa Hornenu, og til Sauda Portsins, biggdu Gullsmiderner og Kramararner.

## IV. Capitule.

Bygging Murveggianna tekst vel med Tilsion Nehemiæ.

Enn þegar Saneballat friette, ad vier biggdum upp Mwrenn, vard hann stygggur og miog reidur, og hædde Gydingana.

2. Og sagde fyrer sijnum Brædrum, og þeim Megtugum j Samaria, Hvad giora þeir Vanmaattugu Gydingar? Eda skal þeim lijdast þetta? Skulu þeir offra? Skulu þeir þvilijkt frammkvæma a einum Deige? Skulu þeir þa Steina Lifande giora sem eru Öskudingia, og uppbrennder?

3. Enn Tobias Ammoniter, sem var næstur honum, sagde, Laated þa biggia, ef ad Refar fara þangad, þeir skylldu vel gieta rifed nidur þeirra Stein-vegge.

4. Heyr Vor GUD! Hvorsu vier erum forsmaader, Laat þu Spott þeirra koma heim j Koll, og gief þa j Forsmaan j þeirra Herleidingar Lande.

5. Laat ecke hyliast þeirra Misgiorninga, og afmaa ecke þeirra Synder fyrer þier, þviad þeir hafa sturlad Biggingar Folked.

6. Enn vier biggdum Mwrenn, og settum hann alldeilis samann, til hans haalfrar Hædar, og Folked fieck Hugarhressing til ad erfida.

7. Pa Saneballat, og Tobia, og þeir Araber, og Ammoniter, og Asdoditer heyrdu þad, ad Mwrenn j Jerusalem var samanlucktur, og þeir voru tekner til ad bæta þad sem brosted var, urdu þeir miog reider.

8. Og þeir giordu aller einn Saattmaala tilsamans, ad þeir kiæme og strijdde a moot Jerusalem, og giordu eina Villu þar jnne.

9. Enn vier baadum til Vors Guds, og settum Vokumenn yfer þa, Dag og Noott, jmoote þeim.

10. Og Juda sagde, Menn eru þreitter af Byrdum, enn Mollder eru miklar, so vier gietum ecke biggt uppa Mwrenn.

11. Enn vorer Mootstandarar þeinktu, Peir skulu hvorke sia nie vita af, fyrr enn vier komum midt a millum þeirra, og slaaum þa jhel, og hindrum Verked.

12. Enn þa þeir Gydingar, sem binggu hiaa þeim, komu vel Tiju sinnum, og sögdu oss þetta, wr ollum aattum, þar þeir bigggu j kringum oss,

13. Pa skipade eg Folkenu nidur j þær aatter a bak vid Mwrenn, j Grafernar, epter þeirra Ætterne, med þeirra Sverdum, Spiotum og Bogum.

14. Og eg sa til, og took mig upp, og sagde til Raadsherranna, og Hofdingianna, og til Folksins, Otteft þa ecke, þeinked a þann Mikla og Ofurliga DROTTinn, og strijded fyrer ydar Brædur, Syne, Dætur, Kvinnur, og Heimele.

15. Enn þa vorer Oviner heyrdu, ad vier vorum ordner þessa vijser, þa giorde GUD þeir-

þeirra Raada=giord ad ongvo. Enn vier aller snerum til Mursins aptur, hvor til sijns Arfides.

16. Og þad skiede frammveiges, ad hoalfpart af þeim ungu Monnum erfidudu, enn annar Helmingur af þeim hiellt a Spiootunum, Skiolldum, Bogunum og Brinium. Og þeir yppurstu stoodu tilbaka af ollu Juda Huse.

17. Þeir sem biggdu uppa Murenn, og bæru Byrdar fra þeim sem logdu uppa þa, med einne Hende fromdu þeir Arfided, enn med annare hielldu þeir a Vopnum.

18. Og hvor eirn sem var ad biggia, hafde sitt Sverd gyrdt vid sijnar Lendar, og biggdu so, enn sa sem blies j Basuninna, hann var hia mier.

19. Enn eg sagde til Raadsherranna, og þeirra yppurstu, og þess Annars Folks, Þesse Giorningur er mikell og vijdur, enn vier erum adskilder langt hvor fra odrum uppa Mwrunum.

20. J hvorium Stad sem þier heyred nu Basununa giella, þa safnest þangad til vor, Vor GUD mun beriast fyrer oss.

21. So vilium vier arfida uppa vorn Giorning. Og Helmingur Folksins hiellt a Vopnum, fra þvi ad dagade a Morgna, og allt til Stiornur uppkomu.

22. Og eg sagde til Folksins j þann Tijma, ad hvor og eirn skyllde vera med sijna Þienara a Næturnar j Jerusalem, so vier mættum hallda Vord um Nætur, enn erfida um Dagana.

23. Enn eg og mijner Brædur, og mijner bake Sveinar, og þeir Menn a Vaktenne a bak mijnu, vier foorum ecke af vorum Klædum, og hvor yfergaf ad lauga sig.

## V. Capitule.

Nehemias aftekur þad Rangsleitna Okur sem tijdkadest medal Gydinga.

Þar upphoofst miked kall medal Folksins, og medal þeirra Kvenna jmoot þeirra Brædrum Gydingunum.

2. Og þar voru nockrer sem ad sogdu, Vorer Syner og Dætur eru margar, tokum Korn og etum, so vier meigum lifa.

3. Enn sumer sogdu so, Setium til Panta vora Akra, Hws, og Vijngarda, so vier meigum faa Korn j þessare Hallæris Tijd.

4. Sumer sogdu so, Tokum til laans Peninga til Kongsins Skatts, og setium j borgun vora Akra og Vijngarda.

5. Þviad vorra Brædra Lijf er so sem vort Lijf, og þeirra Barna so sem vorra Barna, annars verdum vier ad underleggia vora Sonu og Dætur under Þrældom. Og alla reidu eru underlagdar nockrar vorar Dætur, og þar eru eingenn Efne j vorum Hondum, og vorer Akrar og Vijngardar koma under adra.

6. Enn þa eg heyrda þeirra Kall, og slijk þeirra Ord, vard eg miog reidur.

7. Og eg took þad Raad j mijnu Hiarta, ad eg straffade Raadsherrana, og þa Yppurstu, og eg sagde til þeirra, Vill hvor ydar eirn okra annann? Og eg safnade miklum Almwga jmoote þeim,

8. Og sagde til þeirra, Vier hofum keypt vora Brædur Gydingana, epter vorum Mætte, sem ad sellder voru Heidingium, og þier vilied selia ydar Brædur, sem vier hofum keypt til vor? Þa þogdu þeir, og gaatu ongvo svarad.

9. Og eg sagde, Þad er ecke gott sem þier giored, skylldud þier ecke ganga j Guds Otta, fyrer Heidingianna vorra Ovina Brixles saker?

10. Eg og mijner Brædur, og mijner Þienarar, hofum laanad þeim Korn og Peninga, enn Okred lietum vier epter vera.

11. Þar fyrer giefed þeim aptur nu þennann Dag þeirra Akra, Vijngarda, Vidsmiorsgarda og Hws, og þann Hundradasta Part Peninga, a Korne, Vijne og Vidsmiore, sem þier hafed okrad af þeim.

12. Þa svorudu þeir, Vier vilium giefa þad aptur, og einskis krefia af þeim, og vier

vilium giora sem þu hefur sagt. Og eg kallade a Kiennemennena, og tok eirn Eid af þeim, ad þeir skylldu so giora.

13. Eg wthriste minn Barm, og sagde, So wthriste GUD hvorn Mann fra sijnu Hwse, og fra sijnu Arfide, hvor sem ecke uppfyller þesse Ord, ad hann sie wthristur og toomur. Og allur Søfnudurenn sagde, Amen! Og lofudu DRottinn. Og Folked giorde so.

14. Og fra þeim Tijma sem mier bifalad var ad vera eirn Lands-Fovite j Gydinga Lande, sem var, fra Tuttugasta aare, og til þess Tolfta og Tuttugasta aars Artaxerxes Kongs, þad eru Tolf aar, þa fædda eg mig og mijna Brædur, ecke af Lands-Fovitans Koste,

15. Þvi þeir firre Lands-Fovitar, sem vered hofdu fyrer mier, hofdu þvingad Folked, og teked Braud og Vijn fra þvi, þar med Fiorutijge Siklos Silfurs, so og lietu þeir sijna Þienara veita Folkenu Yfergang, enn eg giorda ecke so, fyrer Sokum Guds Otta.

16. Og eg erfidade og so a Mwrveggia Erfidenu, og keypte ongvann Akur, og aller mijner Þienarar urdu ad koma þangad til samans ad erfida.

17. Og ad auk þessa voru af Gydingum, og þeim Ædstu Monnum, Hundrad og Fimmtijge vid mitt Bord, hvorier komner voru til mijn fra Heidingiunum, sem j kringum oss eru.

18. Og eg hafde til Bordhallds hvorn Dag einn Uxa, og Sex wtvalda Saude, og Fugla, og allshaattad Vijn ofurmiked, jnnann hvors Tijunda Dags. Þo krafda eg ecke Lands-Fovitans Kostar, þviad Þionustann var þung Folkenu.

19. Minn GUD! Minnstu mijn til hins gooda, alls þess sem eg hefe giort þessu Folke.

## VI. Capitule.

Nehemias fær fyrer Sierdeilislega Framsyne og Hyggende komest hia Slægdar- og Bondskufullum Brøgdum þeim er hans Fiandmenn villdu hafa i framme mote hønum og Jerusalem.

Nu sem Saneballat, og Tobia, og Gosem Arabiter, og adrer vorer Oviner, fornumu þetta, ad eg hafde uppbiggt Murenn, so þar fannst hvorge framar sprunga a honum (þo ad eg hefde ecke enn j þann Tijd upheingt Hurdernar j Portunum.)

2. Þa sende Saneballat og Gosem til mijn, og lietu seigia mier, Kom, og laatum oss finnast a Landsbyggdunum, j þeim Dal Ono. Enn þeir þeinktu ad giora mier illt.

3. Enn eg sende þeim bod aptur, og liet seigia þeim, Eg hefe miked Arfide ad frammkvæma, eige kann eg ad koma ofan þangad, Annars forsoomast þad Verk, ef eg tek mijna Hond þar fra, og fer eg ofan til ydar.

4. Þeir sendu mier bod vel j fiorar reisur, a þann hatt, Enn eg svarade þeim a þennann hatt.

5. Þa sende j fimmta sinn Saneballat sinn eigenn Þienara til mijn, hvor ed hafde eitt oped Brief j sinne Hende,

6. Þar jnne ad skrifad var, Þad er komed fyrer Heidingiana, og Gosem hefur þad sagt, ad þu og Gydingarner þeinkia sier ad giora Uppreisn, Og þvi bigger þu þennan Mur, ad þu villt vera þeirra Kongur j þessum Malefnum.

7. Þu hefur og sett til Spaamennena, sem skylldu uthroopa j Jerusalem um þig, og seigia, Hann er Kongur Gydinga. Nu mun slijkt koma fyrer Kongenn. Þar fyrer kom nu, og laatum oss raadgast hvorn vid annan.

8. Enn eg sende til hans, og liet so seigia, Ecke er so skied sem þu seiger, Soddan hefur þu uppkveikt j þijnu Hiarta.

9. Þvi þeir villdu aller giora oss hrædda, og þeinktu, Þeir skulu taka sijnar Hendur fraa Verkenu, og arfida ecke. Enn eg stirkta þvi meir mijna Hond.

10. Og eg kom j Semaia Hus, sonar Delaia, sonar Mehetabeel, og hann hafde sig

sig lukt jnne, og sagde, Lœatum oss koma saman j Guds Hus midt j Musterenu, og lokum aptur Musteresins Dyrum, Þviad þeir munu koma og slœa þig j hel, og j Nott koma þeir ad deyda þig.

11. Eg svarade, Skal soddan madur flya? Skal slijkur Madur sem eg er fara j Mustered, ad forda Lijfe sijnu? Eg vil ecke fara þangad.

12. Þvi eg merkta vel, ad Gud hafde ecke utsendt hann, þviad hann spœade þessu um mig: Enn Tobia og Saneballat høfdu giefed honum Peninga,

13. Og þvi took hann Peningana, ad eg skyllde vera hræddur, og so giora, og syndgast, so þeir hefde feinged jllann room, hvar med þeir kynne ad œlasa mier.

14. Minn Gud! Minnstu a Tobia, og Saneballat, epter þessum þeirra giørningum, og a þann Spœamann Noadia, og a þa adra Spœamenn sem mig villdu hræda.

15. Sijdan urdu Murveggerner albuner, þann Fimmta og Tuttugasta Dag j Elul * Mœnude, a Tolf og Fiorutijge Døgum.

* [Elul September.]

16. Og sem aller Øviner vorer þad heyrdu þa oottudust aller Heidingiar, þeir sem j kringum oss voru, so øll þeirra Hughreyste fiell, þviad þeir merktu, ad soddann Giørningur var af Gude.

17. Og a þeim Tijmum voru þeir marger af Juda Høfdingium, ad þeirra Brief geingu til Tobiam, og fra Tobia til þeirra.

18. Þviad þar voru marger j Juda sem voru Eidsvarar hans, Þvi hann var Mœgur Sachania, sonar Arah, og hans son Johanan hafde Doottur Mesullam, sonar Berechia.

19. Og þeir hældu honum fyrer mier, og fluttu honum mijn Ord. Og Tobias sende Brief ad skielfa mig.

## VII. Capitule.

Nehemias (I) skipar Vardhalld i Portunum; og a Murveggium; (II) Giører Ættar-Tolu yfer þad Folk sem lauft var gefed ur Herleidinguñe. (III) Seger fra hvad þeir Ypparstu gaafu til Byggingarennar.

I. 1. Þa vier høfdum nu uppbiggt Murveggena heingde eg upp Hurdernar, og þar voru tilsetter Portvaktarar, Saungvarar, og Levitar.

2. Og eg bifalade mijnum Brodur Hanani, og Hanania, þeim Hallar Fovita j Jerusalem, (þvi hann var eirn Trufastur Madur og Gudhræddur framm yfer marga adra.)

3. Og eg sagde til þeirra, Eige skulu upplœtast Jerusalems Port, fyrr enn heitt er orded af Soolu, og þa enn er vered ad arsida, þa skulu Portenn aptur lykiast og streingiast. Og þar voru Vøkumenn setter af Borgarmønnum Jerusalem, hvor uppa sijna Vakt, og hiœ sijnu Huse.

4. Þvi Borgenn var vijd, rum, og stoor, enn Folked var fœatt j henne, og Husenn voru ecke biggd.

II. 5. Og minn Gud gaf mier j Hiarta, ad eg samansafnade Rœadsherrunum, og Høfdingiunum, og so Folkenu, ad reikna þad. Og eg fann eitt Ættar-Registur uppa þa sem œdur voru komner af Fœangelsenu, Og eg fann j þvi skrifad.

6. Þetta eru Landsins Børn, sem upp eru komenn af þvi utlendska Fœangelse, hvoria Nabogodonosor, Kongur af Babylon, hafde burtflutt, og þeir voru komner aptur til Jerusalem og Juda, hvor j sijna Borg.

7. Og voru komner med Sorobabel, Jesua, Nehemia, Asaria, Raamia, Nahemani, Mardochai, Bilsan, Mispereth, Bigevai, Nehum, og Baena. Þetta er Manntaled a Israels Folke.

8. Børn Pareos voru Tvø Þusund, Hundrad Siøtijge og Tvø.

9. Børn Sephatia voru Þriu Hundrud Siøtijge og Tvø.

10. Børn Arah, voru Sex Hundrud Fimmtijge og Tvø.

11. Børn PahatMoab, a medal barna Jesua og Joab, voru Tvo Þusund, aatta Hundrud og Atian.

12. Børn

12. Born Elam, Þusund, Tvo Hundrud Fiogur og Fimmtijge.
13. Born Sathu, aatta Hundrud Fimm og Fiorutijge.
14. Born Sachai, Sio Hundrud og Sextijge.
15. Born Benui, Sex Hundrud Fiorutijge og aatta.
16. Born Bebai, Sex Hundrud Tuttugu og aatta.
17. Born Asgad, Tvo Þusund, Þriu Hundrud Tuttugu og Tvo.
18. Born Adonikam, Sex Hundrud Sextijge og Sio.
19. Born Bigevai, Tvo Þusund, Sextijge og Sio.
20. Born Adin, Sex Hundrud Fimmtijge og Fimm.
21. Born Ater, af Hiskia, Nijutijge og aatta.
22. Born Hasun, Þriu Hundrud Tuttugu og aatta.
23. Born Bezai, þriu Hundrud Tuttugu og Fiogur.
24. Born Hariph, Hundrad og Tolf.
25. Born Gibeons voru Nijutijge og Fimm.
26. Menn af Bethlehem og Nethopha, Hundrad aattatijge og aatta.
27. Mennerner af Anathoth, Hundrad Tuttugu og aatta.
28. Mennerner af BethAsmaveth, Fiorutijger og Tveir.
29. Mennerner af KiriathJearim, Caphira, og Beeroth, Sio Hundrud Fiorutijge og Þrijr.
30. Mennerner af Rama og Gaba, Sex Hundrud Tuttugu og Eirn.
31. Mennerner af Michmas, Hundrad Tuttugu og Tveir.
32. Mennerner af BethEl og Ai, Hundrad Tuttugu og Þrijr.
33. Mennerner af Annare Nebo, Fimmtijge og Tveir.
34. Þeirrar Annarar Elams born, Þusund, Tvo Hundrud Fimmtijge og Fiogur.
35. Born Harims, Þriu Hundrud og Tuttugu.
36. Born Jericho, Þriu Hundrud Fiorutijge og Fimm.
37. Born Lodhadid og Ono, Sio Hundrud Tuttugu og Eitt.
38. Born Senaa, þriu Þusund, Niju Hundrud og Þriatijge.
39. Prestarner, born Jedaia, af Huse Jesua, Niju Hundrud Siotijge og Þrijr.
40. Born Immers, Þusund, Fimmtijge og Tvo.
41. Born Pashur, Þusund Tvo Hundrud Fiorutijge og Sio.
42. Born Harims, Þusund og Seitian.
43. Levitarner, born Jesua, af Kadmiel, a medal Barna Hodua, Siotijge og Fiogur.
44. Saungvararner, Born Assaphs, Hundrad Fiorutijge og aatta.
45. Dyraverderner voru, Born Sallum, Born Ater, Born Talmons, Born Akubs, Born Hathita, Born Sobai, voru aller til samans Hundrad Þriatijge og aatta.
46. Nethinim, Born Ziha, Born Hasupha, Born Thabaoth.
47. Born Keros, Born Sia, Born Padon.
48. Born Libana, Born Hagaba, Born Salmai.
49. Born Hanans, Born Giddels, Born Gahars.
50. Born Reaia, Born Rezin, Born Nekoda.
51. Born Gasams, Born Usa, Born Passeah.
52. Born Besai, Born Megunim, Born Nephussim.
53. Born Bakbuks, Born Hakupha, Born Harhurs.
54. Born Bazlith, Born Mehida, Born Harsa.

55. Born Barkos, Born Sisera, Born Thamah.
56. Born Neziah, Born Hatipha.
57. Born Salomons Pienara voru Born Sothai, Born Sophereth, Born Prida.
58. Born Jaela, Born Darkons, Born Giddels.
59. Born Sephatia, Born Hatils, Born Pochereth af Zebaim, Born Amons.
60. Oll Nethinim og Salomonis Pienara Born voru Þriu Hundrud Nijutijge og Tvo.
61. Þesser ferdudust og upp, Mithel, Mela, Thel, Harsa, Cherub, Addon og Immer. Enn þeir kunnu ecke ad bivijsa Hus sinna Fedra, eda þeirra Sæde, hvort þeir være af Jsrael.
62. Born Delai, Born Tobia, og Born Nekoda voru Sex Hundrud Fiorutijge og Tvo.
63. Og af Prestunum voru Born Habaia, Born Hakos, Born Barsillai, hvor ad took eina Kvinnu af Barsillai Gileaditers Dætrum, og var nefndur epter þeirra Nafne.
64. Þesser leitudu epter Registre sinnar Fædingar, og þa þeir fundu þad ecke urdu þeir lauser vid Kiennemannsskapinn.
65. Og Hathirsatha sagde til þeirra, ad þeir skylldu ei eta af þvi Allra-Helgasta, fyrr enn eirn Prestur uppkiæme med Urim og Thumim.
66. Allur þesse Almwge, so sem eirn Madur, var Fiorutijge Þusunder, Tvo Þusund, Þriu Hundrud og Sextijge.
67. Auk þeirra Pienarar og Amboatter, þad var ad tolu Sio Þusund, þriu Hundrud Þriatijge og Sio, þeir hofdu og Tvo Hundrud Fiorutijge og Fimm Saungvara og Saungkvinnur,
68. Og Sio Hundrud Þriatijge og Sex Hesta, Tvo Hundrud Fiorutijge og Fimm Mwla.
69. Fiogur Hundrud þriatijge og Fimm Ulfalda, Sex Þusund, Sio Hundrud og Tuttugu Asna.

III. 70. Og nockrer af þeim yppurstu Fedrum gaafu til Verksins. Hathirsatha gaf j Fiehirdsluna Þusund Gyllene, og Fimmtijge Skaaler, Fimm Hundrud og Þriatijge Presta Kyrtla.
71. Og nockrer þeir yppurstu Fedur gaafu j Fiaarsioodenn til Giorningsins Tuttugu Þusund Gyllene, Tvo Þusund og Tvo Hundrud Pund Silfurs.
72. Og þad annad Folk gaf Tuttugu Þusund Gyllene, og Tvo Þusund Pund Silfurs, og Sio og Sextijge Presta Kyrtla.
73. Og Prestarner, Levitarner, Dyraverderner, Saungvararner, og nockrer adrer af Folkenu, og þeir Nethinim, og allur Jsrael sette sig j sijna stade.

## VIII. Capitule.

Logmaals Bokenn er lesinn up fyrer Folkenu.

Nu sem sa hinn Siounde Maanudur var komenn, og Jsraels Born voru j sijnum Stodum, samansafnadest allt Folked so sem eirn Madur, a þvi Breida Stræte, fyrer Vatnsportenu, og sagde til Esdra hins Skriftlærda, ad hann skyllde laata sækia Moses Logmaals Book, sem ad DRottinn hafde boded Jsrael.
2. Og Esdras Kiennemadur bar Logmaals Bookena framm fyrer Almwgann, bæde Menn og Kvinnur, og alla þa sem hana kunnu ad skilia, a þeim Firsta Deige þess Siounda * Maanadar.

* [ 1. Octobris.]

3. Og hann las j henne a þvi Breida Stræte, sem er fyrer Vatnsportenu, fra þvi ad lyste um Morgunenn, og jnn til Middags, fyrer Korlum og Konum, og hvorium þeim sem skilia kunne, og allt Folked snere sijnum Eyrum til Logmaals Bokarennar.
4. Enn Esdras sa Skriftlærde stood upp a einum haasum Trie Stool, hvorn þeir hof-

du giort ad predika a, og þar stoodu hiaa
honum, Mathitia, Sema, Anania, Uria,
Hilkia, og Maeseia, til hægre Handar. Enn
hiaa hans Vinstre stood Padaia, Misael,
Malchia, Hasum, Hasbadana, Sacha-
ria, og Mesullam.
5. Og Esdras opnade Bokena fyrer øllu
Folke, þvi hann stood upp yfer øllu Folkenu.
Og sem hann upplauk henne, þa stood allt
Folked.
6. Og Esdras lofade DRottinn þann Mik-
la Gud, enn allt Folk svarade, Amen, A-
men, med upphøfdum sijnum Høndum, og
hneigdu sig, og tilbaadu DRottinn med And-
lite til Jardar.
7. Enn Jesua, Bani, Serebia, Ja-
min, Akub, Sabthai, Hodaia, Maeseia,
Klita, Asaria, Josabad, Hanan, Plaia,
og Levitarner komu Folkenu til ad gaumgiæ-
fa Løgmaaled. Og Folked stood j sijnum
Stad.
8. Og þeir laasu Guds Løgmaals Book
klaarlega, so ad Menn skildu þad þeir laasu.
9. Og Nehemias (sem er Hathirsatha,)
og Esdras Kiennemadur, sa Skriftlærde, og
Levitarner, sem eggiudu Folked til ad hualei-
da, þeir søgdu til alls Folksins, Þesse Da-
gur er helgadur DROTTne ydar Gude,
Vered þvi ecke hriggver, og graated ecke.
Þviad allt Folked griet, þa þad heyrde Løg-
maalsins Ord.
10. Þvi sagde hann til þeirra, Fared og
eted af þvi Feita og drecked af þvi hinu Sæta,
sended þeim og nockud sem ecke hafa neitt til-
reidt, þviad þesse Dagur er Heilagur Vorum
DRottne, þar fyrer sturled ydur ecke, þvi-
ad Glede DROTTins er ydar Stirkur.
11. Og Levitarner stilltu allt Folked, og
søgdu, Hafed hliodt, þviad þesse Dagur er
Heilagur, hriggest ecke.
12. Og allt Folked gieck burt ad eta og
drecka, og ad senda eirn Part þar af, og
ad giøra eirn mikenn Fognud, þviad þeir
høfdu skiled þau Ord, sem Menn høfdu kynnt
fyrer þeim.

13. Og annars Dags komu þeir yppur-
stu Fedur tilsamans, medal alls Folksins,
og Kiennemennerner, og Levitarner, til Es-
dram þess Skriftlærda, ad hann skyllde un-
dervijsa þeim Løgmaalsins Ord.
14. Og þeir fundu skrifad j Løgmaalenu,
ad DROTTinn hafde boded fyrer Mosen,
ad Israels Born skylldu bwa j Laufskaalum,
a þeirre Haatijd j þeim Siøunda Maanade.
15. Og þeir lietu hlioodbært vera og wt-
hroopa um allar þeirra Borger, og j Jerusa-
lem, og seigia, Fared wt a Fiollenn, og sæ-
ked Vidsmiørs vidar Greiner, Hardsls Tries
Greiner, Mirtus Tries Greiner, Palmvi-
dar Greiner, og Greiner af þyckvum Triaam,
so Menn meige giøra Laufskaala, epter þvi
sem skrifad stendur.
16. Og Folked gieck wt og søktu, og giør-
du sier Lauf skaala, hvor a sijnu Þake, og j
sijnum Garde, og j Gardenum hiaa Guds
Hwse, og a þvi Breida Stræte hiaa Vatns
Portenu, og a þvi Breida Stræte hiaa E-
phraims Porte.
17. Og sa allur Almwge af þeim sem kom-
ner voru aptur af Faangelsenu giørdu Lauf-
skaala, og biuggu þar j. Þviad Israels
Born høfdu ecke so giort, sijdann Josua,
Son Nun, var, og allt til þessa Dags. Og
þar var ein miøg stoor Glede.
18. Þar var og lesid j Guds Løgmaals
Book hvern Dag, fra þeim Firsta Deig-
allt til hins sijdarsta, og þeir hielldu Haa-
tijdena j Sio Daga, enn a hinum aattunda
Deige hielldu þeir Samkomuna, so sem til-
heyrde.

## IX. Capitule.

*Folksins Retta og Alvarlega Idran.*

A þeim Fiorda og Tuttugasta Deige þessa
Maanadar komu Israels Born tilsa-
mans, med Føstu og Seckium, og Mølldu
yfer sier.
2. Og þeir skildu Israels Sæde fra øllum
ødrum Annarlegum Bornum, og geingu
framm,

framm, og jaatudu sijnar Synder, og sinna Fedra Misgiørder.

3. Og þeir stoodu upp j sijnum Stad, og þar var lesed j Logmaals Book DROttins þeirra Guds, Fiorum sinnum a Deige, og þeir jaatudu, og tilbaadu DROttinn sinn GUD, Fiorum sinnum a Deige.

4. Og Levitarner stoodu upp a Troppunum, sem ad voru, Jesua, Bani, Kadmiel, Sebania, Buni, Serebia, Bani og Chenani, og kolludu haarre Roddu til DROttins þeirra Guds.

5. Og þeir Levitar, Jesua, Kadmiel, Bani, og Hasabenia, Serebia, Hodia, Sebania, Pethahia, sogdu, Standed upp, og Lofed DROttinn ydvarn GUD fra Eylijfd til Eylijfdar, og Lofad sie Þitt Dyrdarfulla Nafn sem er upphafed, med allre Blessan og Lofgiørd.

6. Þu DROTTinn ert alleina, þu hefur skapad Himenenn, og alla Himnanna Himna, med ollum þeirra Her, Jørdena, og allt þad sem þar a er, Sioenn og allt þad j honum er, alla Hlute giorer þu lifande, og Himensins Her tilbidur þig.

7. Þu ert sa DRottinn GUD sem utvalder Abram, og utleidder hann fra Ur j Chaldea Lande, og kallader hann Abraham.

8. Og þu fannst hans Hiarta Trufast fyrer þier, og þu giorder eitt Saattmaal vid hann, ad giefa hans Sæde Land þeirra Cananiter, Hethiter, Amoriter, Phereseter, Jebusiter, og Girgositer, og þu hefur endt þijn Ord, þui þu ert Riettlaatur.

9. Og þu saast til Eymdar vorra Fedra j Egyptalande, og heyrder þeirra Kall hiaa þui Rauda Hafe.

10. Og giorder Teikn og Stoormerke a Pharaone og ollum hans Þienorum, og a ollu Folke j hans Lande. Þuiad þu visser, ad þeir voru Drambsamer a moote þeim. Og þu giorder þier eitt Nafn, so sem þad er þennann Dag.

11. Og þu j sundurskipter Sionum fyrer þeim, so þeir geingu þurrer midt j giegnum Sioenn, enn kastader þeirra Offsooknurum nidur j Diwped, so sem Steine j miked Vatn.

12. Þu leidder þa um Daga med einum Skijstoolpa, enn um Nætur med Elldlegum Stoolpa, ad lysa þeim a þann Veg sem þeir skylldu fara.

13. Þu stiest nidur a Fialled Sinai, og talader vid þa, af Himnenum, og gafst þeim Sanngiarnann Riett, og Riett Logmaal, Good Bodord og Setninga.

14. Þu kunngiorder þeim þitt Heilaga Sabbath, baudst þeim Bodord, Setninga, og Logmaal, fyrer Mosen þinn Þienara.

15. Og þu gafst þeim Braud af Himnum þa þa hungrade, letst og uppspretta Vatn af Steinenum þa þa þyrste, og talader til þeirra, ad þeir skylldu ganga þangad, og eignast Landed ad Erfd, yfer hvort þu upplypter þinne Hende, ad giefa þeim þad.

16. Enn vorer Fedur urdu drambsamer, og hardsvijrader, so ad þeir hlyddu ecke þijnum Bodordum.

17. Og þeir villdu ecke heyra þeim, og minntust ecke a þau Undur, sem þu giorder vid þa, helldur urdu þeir hardsvijrader, og kostudu upp einu Hofde, ad snwa sier aptur til þeirra Þrældoms j þeirra Þverwd. Enn þu, Minn GUD! fyrergafst, og varst naadugur, miskunsamur, þolenmoodur, og af mikellre Miskunseme, og yfergafst þa ecke.

18. Og þo ad þeir giordu steyptann Kaalf, og sogdu, Þetta er þinn GUD sem wtleidde þig af Egyptalande, og giordu stoora Gudlastan,

19. Þo samt yfergafst þu þa ecke j Eydemorkenne, epter þinne stoorre Miskunseme, og sa Skijstolpe veik ecke fra þeim um Daga-na ad leida þa a Veigenum, og eige helldur Elldstoolpenn um Nætur, ad lysa þeim a Veigenn þann sem þeir aattu ad fara um.

20. Og þu gafst þeim þinn Godann Anda, ad

ad underviisa þeim, og þu villder ecke taka
þitt (a) Man fra þeirra Munne, og þu
gafst þeim Vatn þa þa þyrste.

(a) Man, Himna Braud.

21. J Fiorutijge aar forsorgader þu þa j Eydemorkenne, so þa skorte eckert, þeirra Klæde fyrntust ecke, og þeirra Fætur boolgnudu ecke.

22. Þu gafst þeim Kongarijke og Pioder-
nar, og skipter þeim hingad og þangad, so þeir eignudust ad erfd Land Sihons, Kongsins j Hesbon, og Land OGS, Kongsins j Basan.

23. Og þu fiolgader þeirra Bornum, so sem Stiornur a Himne, og þu flutter þa jnn j þad Land, sem þu hafder lofad þeirra Fedrum, ad þeir skylldu fara þangad og eignast þad til Erfdar.

24. Og Bornenn fooru þangad, og tooku Landed under sig til Erfda, þu nidurþricter þa Cananiter, Landsins Jnnbyggiara, fyrer þa, og gafst þa j þeirra Hendur, og þeirra Konga og Landsins Folk, so þeir fooru med þa sem þeir villdu.

25. Og þeir yferunnu sterkar Borger, og eitt feitt Land, og jnntooku til Erfdar Hwosenn, full af allshaattudum Audæfum, vthoggna Brunna, Vijngarda, Vidsmiorsgarda, og Alldintrie, af hvorium Mann etur yferfliotanlega, og þeir aatu og urdu metter, og feiter, og lifdu j Lystingum, fyrer þijna mikla Giædsku.

26, Enn þeir urdu ohlyduger og þverbrotner jmoote þier, og kostudu þijnu Logmaale a bak sier aptur. Og þeir draapu þijna Spaamenn sem vitnudu fyrer þeim, ad þeir skylldu snua sier til þijn, og giordu miklar Gudlastaner.

27. Þvi gafstu þa j þeirra Ovina Hendur, þeirra sem þa þiaadu. Og þeir kolludu til þijn a sijnum Hrellingar Tijma, og þu heyrder þa af Himnenum ofann, og fyrer þijna Stooru Miskunseme gafst þu þeim Frelsara, þa sem þeim hialpudu af þeirra Ovina Hondum.

28. Enn þa þeir voru komner til Hvijldar sneru þeir sier ad giora Illt fyrer þier, þa yfergafstu þa j Hendur þeirra Ovina, so ad þeir Drottnudu yfer þeim. Þa umsneru þeir sier, og kolludu til þijn, og þu bænheyrder þa af Himnenum, og hialpader þeim margar reisur epter þinne Mikellre Miskunseme.

29. Þu lietst vitna fyrer þeim, ad þeir skylldu snua sier til þijns Logmaals. Enn þeir voru Drambsamer, og hlyddu ecke þijnum Bodordum, og syndgudust j moote þijnum Riettindum (hvor ef ad Madurenn giorer þa lifer hann j þeim.) Þeir sneru sijnum Herdum j burt, urdu hardsvijrader, og hlyddu ecke.

30. Þetta leidst þu þeim j morg Aar, og lietst vitna þeim fyrer þinn Anda j þijnum Spaamonnum, Enn þeir tooku þad ecke sier til Eyrna. Þar fyrer gafstu þa j Folksins Hendur j Londonum.

31. Enn sokum þinnar Mikellrar Miskunsemdar hefur þu ecke olldungis laated verda vte um þa, eda yfergiefid þa, þviad þu ert Naadugur og Miskunsamur Gud.

32. Nu, Vor Gud! þu Mikle Gud, Megtugur og Hrædelegur, þu sem helldur Saattmaalann og Miskunseme, Akta þu eige lijtelsverda alla þa Armædu sem yfer oss er komenn, og vora Konga, Hofdingia, Presta, Propheta, Fedur, og yfer allt þitt Folk, fra Kongsins Tijma j Assyria, allt til þessa Dags.

33. Þu ert Riettlaatur j ollu þvi sem þu hefur laated yfer oss koma, þvi þu giorer Riett, Enn vier hofum vered Ogudleger.

34. Og vorer Kongar, Hofdingiar, Kiennemenn, og Fedur, hafa eige breitt epter þijnum Logum, eige helldur aktad þijn Bodord, og Vitnisburde, sem þu lietst votta fyrer þeim.

35. Þeir þionudu þier ecke j sijnu Kongarijke, og j þijnu stoora Gotse, sem þu gafst þeim, og j þvi Vijda og Feita Lande, sem þu setter fyrer þa, og þeir sneru ecke fra sijnu Vondu Athæfe.

36. Sia, vier erum Pionar j Dag, og

j þvi

j þvi Lande sem þu gafst vorum Fedrum, ad eta Landsins Avoxt og Giæde, Sioa, þar jnne erum vier nu Pienarar.

37. Og þad margfalldar sijnar jnntekter Kongunum, hvoria þu setter yfer oss fyrer vorar Synder, og þeir Drottna yfer vora Lijkame og Fienad, epter sijnum Vilia, og vier erum j stoorre Neyd.

38. Og j ollu þessu þa giorum vier eitt stadt Saattmaal, og skrifum þad, og laatum vora Høfdingia, Levita, og Presta, jnnsigla þetta.

# X. Capitule.

Nehemias (I) telur þaa upp er Skrifudu og Innsigludu þann Nya Saattmaala sem giordur var mille Guds og Folksins; (II) Seger fraa, Hverssu ad hitt annad Folked kom Einnig i Saattmaala vid Gud.

I. Og þeir ed jnnsigludu voru þesser, Nehemia Hathirsatha, son Hachalia, og Sedechia.

2. Seraja, Asaria, Jeremia.

3. Pashur, Amaria, Malchia.

4. Hattus, Sebania, Malluch.

5. Harim, Meremoth, Obadia,

6. Daniel, Ginthun, Baruch,

7. Mesullam, Abia, Meiamin,

8. Maasia, Bilgai, og Semaia, þad voru Kiennemennerner.

9. Enn Levitarner voru þesser, Jesua, son Asania, Binui, a medal Barna Henadad, Kadmiel.

10. Og þeirra Brædur, Sechania, Hodia, Klita, Plaia, Hanan,

11. Micha, Rehob, Hasabia,

12. Sachur, Serebia, Sebania,

13. Hodia, Bani, og Beninu.

14. Hofdingiar Folksins voru, Pareos, Pahath Moab, Elam, Sathu, Bani,

15. Buni, Asgad, Bebai,

16. Adonia, Biguai, Adin,

17. Ater, Hischia, Asur.

18. Hodia, Hasum, Bezai,

19. Hariph, Anathoth, Neubai,

20. Magpias, Mesullam, Hesir,

21. Mesesabeel, Zadok, Jaddua,

22. Platia, Hanan, Anaia,

23. Hosea, Hanania, Hasub,

24. Halohes, Pilha, Sobek,

25. Rehum, Hasabua, Maeseia,

26. Ahia, Hanan, Anan,

27. Malluch, Harim og Baena.

II. 28. Og þad annad Folk, Prestarner, Levitarner, Dyraverderner, Saungvararner, Nethinim, og aller þeir sem sig hofdu skiled fra Folkenu j Landenu til Guds Laga, med sijnum Kvinnum, Sonum og Dætrum, aller þeir sem þad gaatu underständed,

29. Og þeir hiner Ypperstu geinguft þar under, sinna Brædra vegna. Og þeir komu ad sveria, og skulldbinda sig med sijnum Eide, ad þeir skylldu ganga j Guds Logmaale, þvi sem þeim var giefed fyrer Mosen Guds Pienara, ad þeir villdu hallda og giora epter ollum DROTTins vors Stiornara Bodordum, Riettindum, og Sidvenium.

30. Og ad vier skylldum ecke giefa Folkenu j Londunum vorar Dætur, eige skylldum vier helldur taka þeirra Dætur til vorra Sona.

31. Og þa Folked j Landenu flutte a Sabbaths Dogum Voru og allshaattada Atvinnu til Kaups þa skylldum vier ecke taka þad af þeim um Sabbathsdaginn, og Helga daga. Og ad vier a þvi Siounda Aare skylldum laata allrahanda Þyngsl vera frij.

32. Og leggia eitt Bodord uppa oss, ad vier skylldum aarlega giefa hinn þridia Hlut af einum Sekil, til Pionustugiordarennar, j Vors Guds Huse.

33. Sem er, til Skodunarbrauda, til Daglegs Matoffurs, til Daglegrar Brenneoffurnar, til Sabbathanna, til Nymaanada, og Heilagra Daga, og til þess Helgada, til Syndaoffurs, med hvoriu Israel verdur forlijktur, og til allrahanda Giornings j Guds vors Huse.

34. Og vier kostudum Hlute a medal

Kiennemannanna, Levitanna, og Folksins, um Vidarins Offur, hvad Menn skyllde Aarlega færa til Vors Guds Hwss, epter vorra Fedra Hwsum a tilsettum Tijma, til ad brenna a DROTTins Vors Guds Alltare, so sem skrifad stendur j Logmaalenu.

35. Og aarlega framm ad bera þann Firsta vors Lands Grooda. Og allra Trianna firstann Avoxt, til Guds Hwss.

36. Og þa Frumgietnu af vorum Sonum, og af vorum Fienade, so sem skrifad stendur j Logmaalenu, Og Frumburde af vorum Nautum og Saudum, ad vier skylldum færa allt þetta til Vors Guds Hwss, til Kiennemannanna þeirra sem þionudu j Hwse Vors Guds.

37. Og ad vier skylldum bera framm hid firsta af voru Deige, og af vorum Upplyptingum, af allrahanda Tries Avoxtum, Vijn og Vidsmior, til Kiennemañaña, j Hirdslurnar hiaa Vors Guds Hwse, Og Tiund af voru Lande til Levitanna, ad Levitarner skylldu hafa Tiund af ollum stodum, þar vier hofdum Akurvinnu.

38. Og Presturenn, son Aarons, skal og hafa med Levitunum af Levitanna Tiundum, so ad Levitarner skulu uppfæra Tiund af Tiundunum til Vors Guds Huss, til Hirdslunnar j Skatt-Husenu.

39. Þviad Israels Born og Born Levi skulu uppfæra Upplypting Kornsins, Vijnsins, og Vidsmiorsins, j Hirdsluna, þar ed Helgedoms Kierenn eru, og Prestarner sem þar þiona, og Dyraverderner, og Saungvararner, So ad vier yfergiefum ecke Vors Guds Hws.

## XI. Capitule.

Nofn þeirra (I) sem biuggu i Jerusalem, og (II) J Þorpunum.

I. Og Hofdingiar Folksins biuggu j Jerusalem. Enn þad annad Folk kastade Hlutum þar um, ad þeir liete koma eirn Part af Tiju ad bwa j Jerusalem, j Þeim Heilaga Stad, hiner Niju Partar j Borgunum.

2. Og Almwgenn blessade alla þa Menn sem ad voru lostuglega viliuger til ad bwa j Jerusalem.

3. Þesser eru Landsins Hofdingiar sem biuggu j Jerusalem. Enn j Borgum Juda bioo hvor a sijnu Gotse j sijnum Stodum, Sem var, Israel, Prestarner, Levitarner, Nethinim, og Born Salomonis Þienara.

4. Og j Jerusalem biuggu nockrer af Bornum Juda, og af BenJamin. Af Bornum Juda, Athaia, son Usia, sonar Sacharia, sonar Amaria, sonar Sephatia, sonar Mahelaleel, af Bornum Parez.

5. Og Maeseia, son Baruch, sonar Chalhose, sonar Hasaia, sonar Adaia, sonar Joiarib, sonar Sacharia, Sonar Siloni.

6. Oll Born Parez, sem biuggu j Jerusalem, voru Fiogur Hundrud Sextijge og aatta, sterker Menn.

7. Þesse voru Born BenJamins, Sallu, son Mesullam, sonar Joed, sonar Pedaja, sonar Kolaja, sonar Maeseja, sonar Ithiel, sonar Jesaja.

8. Og epter hann Gabai, Sallai, Niju Hundrud Tuttugu og aatta.

9. Og Joel, son Sichri, var þeirra Forstandare, Og Juda, son Senua, sa annar yfer Stadnum.

10. Enn af Prestunum biuggu, Jedaja, son Jojarib, Jachin.

11. Saraja, son Hilkia, sonar Mesullam, sonar Zadok, sonar Merajoth, sonar Ahitob, sem var Hofdinge j Guds Hwse.

12. Og hans Brædur, sem þionudu j Hwsinu, þeir voru aatta Hundrud Tuttugu og Tveir. Og Adaja, son Jerohams, sonar Plalia, sonar Amzi, sonar Sacharja, sonar Pashur, sonar Malchia.

13. Og hans Brædur þeir Yppurstu a medal Fedranna, þeir voru Tvo Hundrud Fiorutijge og Tveir. Og Amazai, son Asareel, sonar Ahusai, sonar Mesillemoth, sonar Immer.

14. Og

14. Og þeirra Brædur, mikler Menn, voru Hundrad Tuttugu og aatta. Og Sabdiel, son Gedolim, var þeirra Hofdinge.

15. Af Levitunum, Semaja, son Hasub, sonar Asrikams, sonar Hasabia, sonar Bunni.

16. Og Sabthai, og Josabad, af Hofdingium Levitanna, j þeim ytre Giørningum j Guds Hwse.

17. Og Mathania, son Micha, sonar Sabdi, sonar Assaphs, sem var Hofdinge til ad byria Packargiørdena til Bænarennar. Og Bakbukia, sa annar a medal sinna Brædra, og Abda, son Sammua, sonar Galal, sonar Jedithun.

18. Aller Levitarner j þeim Helga Stad voru Tvo Hundrud aattatijge og Fiorer.

19. Enn Dyraverder, Akub, Talmon, og þeirra Brædur, sem tooku vara a Portunum, voru Hundrad Siotijge og Tveir.

20. Enn þeir adrer af Jsrael, Kiennemenn og Levitar voru j øllum Juda Stødum, hvor a sinne Erfd.

21. Og þeir Nethinim biuggu j Ophel, og Ziha, og Gispa, þeir heyrdu til þeim Nethinim.

22. Enn sa hinn Ypparste yfer Levitunum j Jerusalem var Usi, son Bani, sonar Hasabia, sonar Mathania, sonar Micha. Af Børnum Assaphs voru Saungvarar um Pionustugiørdena j Guds Hwse.

23. Pvi þad var Kongsins Bifalning yfer þeim, ad Saungvararner skylldu trulega høndla hvørs Dags Skylldu verk.

24. Og Pethaia, Sonur Mesesabeel af Børnum Serah, Sonar Juda, hann var Kongsins Bifalnings Madur til allra þeirra Giørninga, sem Folked skyllde giora,

25. Og Barna Juda, sem voru þar vte a Porponum j þeirra Lande.

II. Þeir biuggu nockrer j Kiriath Arba, og j hennar Dætrum, og Dibon, og hennar Dætrum, og Kapzeel, og hennar Porpum.

26. Og Jesua, Moiada, Bethpalet.

27. Hasarsual, BerSeba, og hennar Dætrum.

28. Ziklag, og Machona, og hennar Dætrum.

29. J Enrimmon, Zarega, Jeremuth.

30. Sanoah, Adullam, og þeirra Porpum, j Lachis, og hennar Landeign, Aseka, og hennar Dætrum. Og þeir høsdu Herbwder fra BerSeba allt til Dalsins Hinnon.

31. Enn Børn BenJamin af Gaba biuggu j Michmas, Aia, BethEl, og hennar Dætrum.

32. Og j Anathoth, Nob, Anania.

33. Hazor, Rama, Githaim.

34. Hadid, Ziboim, Neballat.

35. Lod, Ono, og j Handverks Manna Dalnum.

36. Og nockrer Levitarner, sem høsdu Part j Juda, biuggu a medal BenJamin.

## XII. Capitule.

(I) Nøfn og Ættar Tala Prestanna og Levitanna; (II) Jerusalems Vijgsla; (III) Hverju ad Menn voru setter til ad giæta Inntekta Prestanna og Levitanna.

I. Þesser eru þeir Kiennemenn og Levitar sem uppforu med Zorobabel, Syne Sealthiel, og Jesua. Seraia, Jeremia, Esra.

2. Amaria, Malluch, Hattus.

3. Sechania, Rehum, Meremoth.

4. Iddo, Ginthoi, Abia.

5. Meiamin, Maadia, Bilga.

6. Semaia, Jojarib, Jedaia.

7. Sallu, Amok, Hilkia, og Jedaia. Þesser voru Hofdingiar medal Kiennemannanna, og þeirra Brædra, a Døgum Jesua.

8. Enn Levitar, þesser, Jesua, Benui, Kadmiel, Serebia, Juda, Mathania, þesser voru setter yfer Packargiørdar Embætted, hann, og hans Brædur.

9. Bakbukia og Unni, þeirra Brædur voru hioa þeim til Vardhallds.

10. Jesua gat Joiakim, Joiakim gat Eliasib, Eliasib gat Joiada.

11. Joiada gat Jonathan, Jonathan gat (a) Jaddua.

(a) (Jaddua) Þesse er sa Jaddus sem gieck ut a moote Alexandro Magno þa hann for med Her ad Jerusalem, svo hefur Nehemias, og mæ skie Esdras, lifad til Daga Alexandri, og orded æred gamler, og hafa lifad Fiora edur Fimm þa yppurstu Presta.

12. Og j Tijd Joiakims voru þesser yppurstu Fedur a medal Kiennemannanna, af Seraia var Meraia, af Jeremia var Hanania.

13. Af Esra var Mesullam, af Amaria var Johanan.

14. Af Malluch var Jonathan, af Sebania var Joseph.

15. Af Harim var Adna, af Meraioth var Helchai.

16. Af Iddo var Sacharia, af Ginthon var Mesullam.

17. Af Abia var Sichri, af Meiamin Moadia var Piltai.

18. Af Bilga var Sammua, af Semai var Jonathan.

19. Af Joiarib var Mathnai, af Jedaia var Usi.

20. Af Sallai var Kallai, af Amok var Eber.

21. Af Hilkia var Hasabia, af Jedaia var Nethaneel.

22. Og j Tijd Eliasib urdu Joiada, Johanan, og Jaddua, skrifader yppurstu Fedur a medal Levitanna og Kiennemannanna, til Kongs Rijkis Darii af Persia.

23. Enn Born Levi, þeir yppurstu Fedur, voru skrifader j Annalum, allt til Daga Johanan, Sonar Eliasib.

24. Og þesser voru ener yppurstu a medal Levitanna, Hasabia, Serebia, og Jesua, Son Kadmiels, og þeirra Brædur hioa þeim, til ad lofa og þacker ad giora, so sem David Guds Madur hafde boded, hvort Vardhalld hioa odru.

25. Mathania, Bakbukia, Obadia, Mesullam, Talmon, og Akub, þeir voru Dyraverder a Vakteune vid Proskolldenn j Dyronum.

26. Þesser voru j Tijd Joiakims, Sonar Jesua, Sonar Jozadaks, og a Dogum Nehemiæ Lands Hofdingia, og Esdræ Kiennemanns þess Skriftlærda.

II. 27. Enn til Vijgslu Mwranna j Jerusalem voru kallader Levitarner wr ollum þeirra Stodum, so Menn skylldu hafa þa til Jerusalem, og hallda Vijgsluna med Glede og Packargiord, med Saung, Cimbalis, Psolltuirum, og Horpum.

28. Og Saungvaranna Born sofnudust tilsamans, af Landsoalfum kringum Jerusalem, og af Nethophati Bwgordum.

29. Og af Hwse Gilgal, og af Okrum j Gibea, og Asmaveth, þviad Saungvararner hofdu biggt sier Bæe j kringum Jerusalem.

30. Og Prestarner og Levitarner hreinsudu sig, þeir hreinsudu og Folked, Portenn, og Mwrenn.

31. Og eg liet Hofdingiana Juda uppstijga a Mwrenn, og eg tilsetta Tvo stoora Packlætis Chora, sem neadu wt uppa Mwrnum, til Hægre Sijdu ad Mykiuportenu.

32. Enn Hosaia, og Helmingurenn af Juda Hofdingium, geingu epter þeim.

33. Og Asaria, Esra, Mesullam,

34. Juda, BenJamin, Semaia, og Jeremia.

35. Og nockrer af Prestanna Bornum, med þeirra Basunum, sem var Sacharia, Son Jonathans, Sonar Semaia, Sonar Mathania, Sonar Michaia, Sonar Sachur, Sonar Assaph.

36. Og hans Brædur, Semaia, Asareel Milalai, Gilalai, Maai, Nethaneel og Juda, Hanani, med Davids Guds Manns Hliodsærum, og Esdra sa Skriftlærde fyrer þeim.

37. J moote Brunnportenu, og þeir geingu jmoote þeim upp epter Troppunum til Davids Borgar, a þann Mwr sem liggur til Davids Hwss, inn til Vatnsportsins, jmoote Austre.

38. Sa Annar Þackargiørdar Chor gieck þvert yfer, og eg epter þeim, og Helmingurenn af Folkenu, uppa Mwrenn, til Ofna-Turnsins, allt til þess Breida Mwrs.

39. Og til Ephraims Ports, og til þess gamla Ports, og til Fiskeportsins, allt til Turns Hananeels, og til Turns Mea, allt til Sauda Portsins, og naamu stadar j Mirkvastofu Portenu.

40. Og so stoodu þeir Tveir þacklætis Chorar j Guds Hwse, og eg, og Helmingurenn af þeim yppurstu med mier.

41. Og Prestarner, sem voru Eliachim, Maeseia, MinJamin, Michaia, Elioenai, Sacharia, Hanania, med Basunurnar.

42. Og Maeseia, Semaia, Eleasar, Usi, Johanan, Malchia, Elam, og Asar, og Saungvararner sungu hoatt, enn Jesrahia var Forstandarenn.

43. Og a þessum sama Deige voru færdar miklar Foorner, og þeir voru glader, þviad Gud hafde giort þeim eina mikla Glede, so ad allar Kvinnur og Børn gloddust, og þeirra Føgnudur j Jerusalem heyrdest laanga Vega j burt.

III. 44. A þessum Tijma voru nockrer Menn skickader yfer Fiehirdslurnar þar sem jnne voru Upplyptingar-Offur, Firstu Avexter, og Tijunder, ad safna j þær af Økrunum, og um Stadena, þeim Hluta sem er j Logmaalenu, til Kiennemannanna, og Levitanna, þviad Juda hafde Glede af Kiennemønnunum og Levitunum sem stoodu,

45. Og tooku vara a þeirra Guds Vardhallde, og a Vardhallde Hreinsunarennar. Enn Saungvararner og Dyraverderner stoodu epter Davids og hans Sonar, Salomons Skipun.

46. Þviad j Tijd Davids og Assaphs voru skickader þeir yppurstu Saungvarar, og Lofsongvar, og Þacklæte til Guds.

47. Enn allur Jsrael gaf Saungvørunum og Dyravordonum Hlut, j Tijd Sorobabel og Nehemie, hvørn Dag sinn Hlut, og þeir gaafu þad sem helgad var til Levitanna, enn Levitarner gaafu þad helgad var til Aarons Barna.

## XIII. Capitule.

Alvørugefne og Vandlæting Nehemiæ, vidvikiande Skickunum um Eitt og Annad sem vid þurfte; (I) J þeirre Veralldlegu; (II) Andlegu; Og (III) Hus-Stiornar-Stettenne.

I. Og a þeim Tijma var lesenn Moses Book fyrer Folksins Eyrum, og þar fannst skrifad jnne, ad Ammoniter og Moabiter skylldu alldrei koma j Guds Samkundu.

2. Sokum þess, ad þeir komu ecke jmoot Bornum Jsraels med Braud og Vatn, helldur føludu Balaam jmoote þeim, ad bolva þeim, enn Vor GUD snere þeirre Bølvan j Blessan.

3. Enn sem þeir heyrdu soddan Logmaal, skildu þeir alla framande Menn fra Jsrael.

II. 4. Og Eliasib Kiennemadur, sem aadur var settur yfer Fiehirdsluna hiaa Vors Guds Hwse, hann var venssladur Tobie.

5. Og hann hafde giort honum eina stoora Hirdslu, hvar wti þeir høfdu aadur lagt Matoffur, Reykelsed, Kierenn, og Tijundernar af Kornenu, Vijnenu, og Vidsmiørenu, epter Bode Levitanna, Saungvaranna, og Dyravordslu Mannanna, og þar med og eirnenn Prestanna Upplyptingar.

6. Enn um þetta Bil var eg ecke j Jerusalem, þa þeir fromdu allt þetta, þviad a þvi Tolfta og Tuttugasta aare Artaxerxes, Kongs j Babylon, kom eg til Kongsins, og epter nockra Daga fieck eg af Kongenum

7. Ad fara til Jerusalem. Og eg merkta, ad þad var ecke gott sem Eliasib hafde giort vid Tobia, ad hann giorde honum eina Hirdslu j Gardenum hiaa Guds Hwse.

8. Og þad mislijkade mier miog. Og eg kastade ollum Kierum Tobiæ Hws ut ur Kistunne,

9. Og baud þeim ad hreinsa Kistuna. Og eg liet þangad aptur Kierinn Guds Hwss, Matoffur, og Reykelse.

10. Og eg fornam, ad Levitanna Partur var þeim ecke giefenn, og þvi voru Levitarner og Saungvararner j burt fluner, hvor til sijns Akurs, ad arfida.

11. Þa avijtade eg þa yppurstu, og sagde, Þvi yfergiefum Vier Guds Hws? Enn eg heimte þa saman, og skickade þa j sinn Stad.

12. Þa færde allur Juda þeim Tijunder af Korne, Vijne, og Vidsmiore, til Skatts.

13. Og eg setta yfer Skattenn Selemia Kiennemann, og Zadok þann Skriftlærda, og af Levitunum Pedaia, og under þeirra Hond Hanan, Son Sachurs, Sonar Mathania, þvi þeir voru halldner trwer, og þeim var bifalad ad utskipta þvi med þeirra Brædrum.

14. Minn GUd! Minnstu mijn j þvi, og afmaa ecke mijn Miskunar-Verk, sem eg hefe giort vid mijns Guds Hws, og a hans Vardhallde.

15. A þeim sama Tijma saa eg j Juda, ad þeir troadu Vijnpressur um Sabbaths-Dagenn, og jnnfærdu Bindene, og Asnana Klifiada med Vijn, Vijnber, Fijkiur, og allshaattadar Byrder berast til Jerusalem a Sabbaths-Deigenum. Og eg vitnade fyrer þeim a þeim sama Deige, þar þeir selldu Fædslurnar.

16. Þar biuggu og nockrer af Tyro, þeir fluttu Fisk, og allshaattada Voru, og selldu þad Bornum Juda og Jerusalem, um Sabbathsdagenn.

17. Þa straffade eg þa yppurstu j Juda, og sagde til þeirra, Hvor er Illska þesse. sem þier giored, og vanhelged Sabbaths-Dagenn?

18. Giordu eige ydar Fedur so, og Vor Gud leidde alla þessa Olucku yfer oss, og yfer þennann Stad? Og þier auked enn nu Reide yfer Israel, j þvi, ad þier vanhelged Sabbaths-Dagenn.

19. Og þegar Portenn j Jerusalem voru upploatenn fyrer Sabbaths-Dagenn Þa baud eg ad laata Portenn aptur, og bifalade, ad þeim skyllde ecke uppluked fyrr enn epter Sabbaths-Dagenn. Og eg skickade nockra af mijnum Þienurum til Stadarportanna, ad þar skylldu ongvar Byrder berast jnn um Sabbaths-Dagana.

20. Þa voru Kramararner og Kaupmennerner um Noottena utan fyrer Jerusalem, med allrahanda Voru, og þad skiede eitt sinn eda tvisvar.

21. Þa vitnade eg fyrer þeim, og eg sagde til þeirra, Þvi erud þier a Noattarþele j kring um Mwrana? Ef þier giored þad enn eitt sinn þa skal eg leggia Hendur a ydur. Og fra þeim Tijma komu þeir ecke oa Sabbaths-Dogunum.

22. Og eg sagde til Levitanna, sem voru hreiner, ad þeir skylldu koma og geyma Portenn, og helga Sabbaths-Dagenn. Minn Gud! Minnst þu mijn j þessu, og þirm mier epter þinne mikillre Miskun.

II. 23. Eg saa og a þeim sama Tijma, ad Gydingarner tooku sier Eigennkonur af Asdod, Ammon, og Moab.

24. Og þeirra Born toludu ad helminge Tungumaal þeirra j Asdod, enn kunnu ecke ad tala Gydinga maal, Helldur toludu þeir epter hvors Folks Tungumaale.

25. Og eg avijtade þa, og bolvade þeim, og sloo nockra Menn, og reitte Haar af þeim, Og eg took Eid af þeim vid Gud, Þier skulud ecke giefa ydar Dætur þeirra Sonum, eda taka þeirra Dætur til ydvara Sona, edur til ydar sialfra.

26. Hefur ecke Salomon, Israelis Kongur, syndgast j þessu? Og þar var þo eingenn Kongur honum lijkur a millum margra Heidingia, og hann var kiær sijnum Gude, og Gud sette hann til eins Kongs yfer allann Israel,

Israel, Po komu þær Utlendsku Kvinnur honum til ad syndgast.

27. Hafed þier ecke þad heyrt, ad þier giøred slijka mikla Voudsku, ad misgiora vid Vorn Gud, j þvi, ad þier taked Utlendskar Kvinnur?

28. Og einn af Børnum Jojada, Sonar Eliasib, ypparsta Kiennemanns, hann hafde giort Teingder vid Saneballat Horoniter, Enn eg rak hann fra mier.

29. Minnst þu þeirra, Minn Gud! sem ad saurga Kiennemannskapenn, og Prestanna Sꜳttmꜳla, og Levitanna.

30. So hreinsade eg þa af øllum Utlendingum, og sette Vardhalld, Presta og Levita, hvørn til sinnar Þionustu.

31. Til ad øffra Videnum j Tilsettann Tijma, og Frumfoornum. Minnst þu ꜳ mig, Minn Gud! til hins Gooda.

Ender a Book Nehemiæ.

# Bookenn Esther.

## I. Capitule.

(I) Um þad Gestabod sem Konungurinn Assverus giørde; (II) Vasthi Drottning er Rekenn ut.

I. PAnn Tijd Kong Assverus * rijkte fra India Lande, og til Morlands, yfer Hundrad Sis og Tuttugu Þiodløndum,

* [Artaxerxes Madur Esther, fyrer Hingadburdenn Christi 472. Anno Mundi 3488.

2. Og sem hann sat j sijnu Konglegu Sæte, a Slotenu Susan,

3. A þridia Aare hans Kongsrijkes, giørde hann eitt Giestabod øllum sijnum Hofdingium og Þienørum, og þeim villdustu af Persia og Meden, Landstiornurum, og þeim Ædstu Mønnum, j sijnum Løndum.

4. Ad hann liete siꜳ þann ypparlega Rijkdom sijns Konunglegs Rijkis, og Prakt sinnar Majestatis, j marga Daga, sem var j Hundrad og ꜳttatijge Daga.

5. Og sem þesser Dagar voru wtendader, giørde Kongurenn eitt Giestabod øllu þvi Folke sem var j Susan Slote, bæde stoorum og smꜳum, j sio Daga, j þvi Hofe sem var j Alldingardenum, hiꜳ Kongsins Hꜳse.

6. Þar hiengu Hvijt, Græn, og Blꜳ Tiølld, saman bundenn med dyrmætu Liine, og Skarlats Snurum j Silfurhringa a Marmara Stolpum. Beckerner voru af Gulle og Silfre, Golfed var lagt med Grænum, Hvijtum, Gulum, og Svortum Marmara Steinum.

7. Og Menn bꜳru Dryckenn jnn j gullegum Kierum, og ætijd j ødrum og ødrum Kierum, og Kongsins Vijn var yfergnæfanlegt, so sem Kongsins Formeigan var til.

8. Og ad ongvum var hallded, hvad miked hvør skyllde drecka, þvi Kongurenn hafde so boded øllum sijnum Forgangsmønnum j sijnu Hꜳse, ad hvør skyllde giora sem hønum best lijkade.

9. Og Drottningenn Vasthi giørde og so eirnenn eitt Kvenna Giestabod, j þvi Konunglega Hꜳse Assveri Kongs.

II. 10. Og a þeim siounda Deige sem Kongurenn var ordenn gladur af Vijne, þa baud hann Mehumam, Bistha, Harbona, Bigtha, Abagtha, Sethar og Charcas, þessum sijnum sio Herbergia Sveinum, þeir ed Assvero Konge þionudu,

11. Ad þeir skylldu sækia Vasthi Drottningu, og leida hana jnn fyrer Kongenn, med sinne Konunglegre Koronu, So hann liete Folked og Hofdingiana siꜳ hennar Dæglegleika, þvi hun var dæleg.

12. Enn Vasthi Drottning villde ecke koma,

koma, epter Ordum Kongsins, fyrer Kongsins Herbergia Sveina. Pa vard Kongurenn miog reidur, so hans Grimmd brann j honum.

13. Og Kongurenn talade vid þa hina Vijsu, hvorier best vissu Landsins Sidvenii (þviad Konungleg Moalaferle urdu ad skie, fyrer ollum enn Hyggnustu uppa Log og Riett.)

14. Enn þeir enu nærstu hioa honum voru, Charsena, Sethar, Admatha, Tharsis, Meres, Marsena, og Memuchan, sio Hofdingiar Persarum og Medorum, hvorier ad soau Kongsins Andlit, og Firstu Sæte hofdu j Rijkenu.

15. Hvorn Doom ad dæma skyllde um Vasthi Drottningu, fyrer þad, ad hun hafde ecke giort epter Kongsins Assveri Ordum, fyrer hans Herbergia Sveina.

16. Pa sagde Memuchan fyrer Kongenum og Hofdingiunum, Vasthi Drottning hefur ecke alleinasta misgiort vid Kongenn, helldur og so vid alla Hofdingiana, og vid allar Pioder þær sem ad eru j ollum Londum Assveri Kongs.

17. Þviad þesse Drottningarennar Breitne mun vtberast til allra Kvenna, so ad þær munu fyrerlyta sijna Menn fyrer þeirra Augum, og munu so seigia, Assverus Kongur baud sinne Drottningu Vasthi ad koma fyrer sig, Enn hun villde ecke.

18. So munu nu Hofdingia Kvinnur j Persia og Meden seigia til allra Kongsins Hofdingia, þa þær spyria hvad Drottningenn hefur giort, So mun þar af koma nog Fyrerlitning og Reide.

19. Þocknest þad Kongenum, þa loate hann vtganga eitt Konunglegt Bod, og loate þad skrifa epter Logmoale Persarum og Medorum, hvort ad Oriufanlegt er, Ad Vasthi skule ecke meir koma fyrer Assverum Kong, helldur ad Kongurenn giefe hennar Rijke þeirre sem henne er nærst, hvor ad betre er enn hun.

20. Og ad þetta Kongsins Brief, sem giort verdur, hliome um allt hans Rijke (sem miog er vijdt) So ad allar Kvinnur hafe og hallde sijna Menn j Heidre, hvort þeir eiga ad sier meira edur minna.

21. Þetta þocknadest Kongenum, og so Hofdingiunum, Og Kongurenn giorde epter Ordum Memuchan.

22. Pa voru Briefenn send vt um oll Kongsins Lond, j sierhvort Land epter þess skrife, og til sierhvors Folks epter þess Tungumoale, ad hvor Madur skal vera Yferherra j sijnu eigenn Hwse, og liet tala epter sijns Folks Tungumoale.

## II. Capitule.

Esther, Ein Fatæk Stulka af Gydinga Folke, sem var bæde Fodurlaus og Modurlaus, verdur Drottning i þvi Mikla og Megtuga Kongs Rijke Persia.

Pa þetta var skied, og Reide rann af Assvero Konge, þa minntest hann a Vasthi, hvad hun hafde giort, og hvor Doomur geinged hafde yfer hana.

2. Pa sogdu Kongsins Þienarar, þeir sem honum þionudu, Menn leite Kongenum epter ungum frijdum Jomfrwom.

3. Og ad Kongurenn setie Umskignendur um oll Lond sijns Kongsrijkis, þeir ed samansafne ollum ungum vænum Meyum til Susans Slots, j Frwrstofuna, under Hond Hegai Kongsins Herbergis Sveins, sa sem vardveiter Kvinnurnar, ad hann giefe þeim þeirra Skart.

4. Og hvor su Pijka sem Kongenum þocknast verde hun Drottning j Stadenn Vasthi. Þetta lijkade Kongenum vel, og hann giorde so.

5. Og þar var eirn Judaiskur Madur a Slotenu Susan, hann hiet Mardocheus, Son Jair, Sonar Simei, Sonar Kis, Sonar Jemini.

6. Sem hafde vered fluttur fra Jerusalem þa Jechonia Juda Kongur var burt fluttur, hvorn Nabugodonosor Kongur flutte til Babylon.

7. Hann

7. Hann var Fostre Hadassa, hun er Esther, hun var hans Fodur Broudurs Dootter, þvi hun ætte hvorke Fodur nie Modur, og hun var miog væn og frijd Jungfrw. Og þa hennar Fader og Moder önduduſt, þa took Mardocheus hana ad ſier j Dottur ſtad.

8. Pa þetta Kongſins Bod og Logmaal barſt wt, og morgum Pijkum var ſamanſafnad uppa Sloted Suſan, under Hond Hegai, þa var Esther tekenn til Kongſins Hwſs, under Hond Hegai, ſa ed Kvinnurnar geymde.

9. Og Pijkann þocknadeſt honum, og hun fann Naad fyrer honum. Og hann flytte ſier med hennar Skart, ſo hann giæfe henne ſinn Part, hann gaf henne Sio ſijnar Jungfrwr af Kongſins Hwſe, og þann beſta Samaſtad, ſem var j Frwrſtofunne, valde hann henne og hennar Pijkum.

10. Enn Esther ſagde honum ecke fra ſijnu Folke, nie fra ſinne Ætt, Þvi Mardocheus hafde boded henne ad hun ſkyllde laata ongvann þar af vita.

11. Og Mardocheus gieck Daglega j Forgardeinn hia Jungfrwr Herbergenu, ad hann villde vita hvort Esther gieck vel, og hvad um hana lide.

12. Og þa aaſettur Tijme hvorrar Jungfrwr var komenn, ad hun ſkyllde koma til Aſſverum Kongs, epter þad hun hafde vered Tolf Maanude j Kvenna Skartenu, þviad þeirra Skart vard ad hafa ſo langa Tijd, ſem var Sex Maanude med Balſamum og Myrru, og Sex Maanude med dyrlegum Smyrſlum, ſo urdu þa Kvinnurnar fullprijddar.

13. Sijdann gieck Jungfrwenn til Kongſins, og hvorn hun villde þa ſkylldu Menn faa henne, ſem ganga ſkyllde med henne fra Jungfrwr Herbergenu til Kongſins Hwſs.

14. Og þegar ein kom jnn um Kvollded, gieck hun aptur um Morgunenn fra honum j þa adra Frwrſtofu, under Hond Saasgas, ſem var Kongſins Herbergia Sveirn, hvor ed vardveitte Frillurnar, og hun maatte ecke koma aptur til Kongſins, nema Kongurenn villde, og liete kalla a hana med Nafne.

15. Enn ſem ſa Tijme kom, ad Esther, Dotter Abihails, Fodursbrodurs Mardochei, (hvoria hann hafde teked ſier til Dottur,) ſkyllde koma til Kongſins, þa bad hun einſkis, utann hvad ſem Hegai, Kongſins Herbergis Sveirn, Kvennavaktare ſagde, Og Esther fann Naad hia ollum þeim ſem hana ſaau,

16. Og Esther var tekenn til Aſſverus Kongs, j hans Konunglega Hwſ, a þeim Tijunda Maanude ſem hiet Tebeth, * a Siounda aare hans Rijkes.

* [Tebeth. Januarius.]

17. Og Kongurenn elſkade Esther framm yfer allar Kvinnur, og hun fann Naad og Miſkun fyrer honum, framm yfer allar Jungfrwr, og hann ſette þa Konunglegu Koronu a hennar Hofud, og giorde hana ad Drottningu j Stadenn Vaſthi.

18. Og Kongurenn giorde ollum ſijnum Hofdingium og Pienurum eitt miked Gieſtabod, og þad Gieſtabod var giort vegna Esther. Og hann liet Londenn hvijlaſt, og ſkeinkte wt Konunglegar Gaafur.

19. Og ſem j Annad Sinn var ſafnad Jungfrwnum, ſat Mardocheus j Kongſins Porte.

20. Enn Esther hafde enn ecke ſagt til ſinnar Ættar, og eige helldur kunngiort um ſitt Folk, þvi Mardocheus hafde ſo boded henne, þviad Esther giorde epter hans Ordum, lijka ſo ſem þa hann var hennar Fooſtre.

21. Og a þeim ſama Tijma, ſem Mardocheus ſat j Kongſins Porte, urdu Tveir af Kongſins Herbergis Sveinum, Bigthan, og Theres, ſem voktudu Portdyrnar, reider, og hugdu ad leggia Hendur a Kong Aſſverum.

22. Þeſſa vard Mardocheus vijs, og hann undervijſade þad Esther Drottningu, enn

Esther sagde þad Kongenum, Mardochei vegna.

23. Og þa Menn rannsøkudu þvilijkt Efne, þa fannst þad so, og þeir urdu baader heingder a Trie. Og þetta var skrifad j Annala Book fyrer Kongenum.

# III. Capitule.

(I) Metordagyrnd Amans, og (II) Blodgyrug Raad og Fyrertekt mote Gydingum.

I. Epter þetta skied giorde Assverus Kongur Aman megtugann, hann var Sonur Medatha Agagiter, og upphoof hann, og sette hans Sæte upp yfer alla Hofdingia sem hiaa honum voru.

2. Og aller Kongsins Pienarar, sem voru j Kongsins Porte, beigdu sijn Knie, og tilbaadu Aman, þvi Kongurenn hafdе so boded um hann. Enn Mardocheus beigde ecke sijn Knie, tilbad hann og ecke.

3. Pa søgdu Kongsins Sveinar Mardocheo, sem voru j Kongsins Porte, Pvi brytur þu Kongsins Bod?

4. Og sem þeir søgdu þad daglega til hans, enn hann villde ecke hlyda þeim ad, þa undervijsudu þeir þetta Aman, ad þeir kynne siaa hvort Mardochei Ord være stødug, þvi hann hafde sagt þeim, ad hann være Gydingur.

II. 5. Og sem Aman saa ad Mardocheus beigde ecke sijn Knie fyrer honum, villde og ecke tilbidia hann, vard hann fullur af Reide.

6. Og honum þotte einskis verdt ad leggia sijnar Hendur a Mardocheum alleina, þvi þeir hofdu sagt Aman til Folks Mardochei, Helldur aastundade Aman ad afmaa Mardochei Folk, alla Gydinga, sem ad voru j øllu Assveri Kongs Rijke.

7. A þeim Firsta Maanude, þad er sa Maanudur * Nisan, a Tolfta aare Assveri Kongs, var Hlutfalle kastad fyrer Aman, fra einum Deige til Annars, og fra Maanude og til þess Tolfta Maanadar, sem var sa Maanadur ** Adar.

* [Nisan April'is.] ** [Adar Martius.]

8. Og Aman sagde til Assverus Kongs, Hier er eitt Folk vtdreift, og vtskiptest a medal allra Piooda, j øllum Londum þijns Kongsrijkes, og þeirra Løgmaal er odruvijs enn annara Piooda, og þad breiter ecke epter Kongsins Løgmaale, og eige er þad lijdanlegt Kongenum ad laata þad so fara.

9. Og ef ad Kongenum þocknast so, þa skrife hann, ad Menn tortijne þeim. So vil eg vega Tiju Þusund Centener Silfurs j Embættis Manna Hendur, so þad leggest j Kongsins Fiesiooda Hws.

10. Pa took Kongurenn sinn Hring af Hendenne, og fieck Aman, Syne Medatha Agagiter, Ovin Gydinga,

11. Og Kongurenn sagde til Amans, Pad Silfur skal vera þier giefed, og þar ad auk Folked, so þu giorer vid þad hvad þier lijkar.

12. Pa voru kallader Kongsins Skrifarar, a Prettanda Deige þess Firsta Maanadar, og þad var skrifad so sem Aman bifalade til Kongsins Hofdingia, og til Landsins Fovita, hier og þar, j Londonum, og til Hofdingia sierhvørrar Piodar, j Londunum, hier og þar, epter Rite og Tungumaale sierhvørs Folks, under Assveri Kongs Nafne, og var innsiglad med Kongsins Hring.

13. Og þesse Brief voru vtsend fyrer Hlaupara um øll Lond Kongsins, ad Menn skylldu afmaa, drepa, og jhel slaa alla Gydinga, bæde Unga og Gamla, Born og Konur, a einum Deige, sem er a Prettanda Deige j þeim Tolfta Maanade*, þad var sa Maanadur Adar, og ad ræna þeirra Audæfum.

* [13. Martii.]

14. So var nu hlioodande þesse Skrift, ad þeim var bifalad j øllum Londum, ad birta þetta fyrer øllu Folke, ad þad skyllde vera reidubwed, a þeim sama Deige.

15. Og Hlaupararner geingu med skynde af Stad, epter Kongsins Skipan. Og þad Bod var uppsleiged a Slotenu Susan.

Og

Og Kongurenn og Aman ſaatu og druck u, enn Borgenn Suſan vard twijlraad.

# IV. Capitule.

Um þa Mikla Hriggd og Harm Gydinganna, Vegna þeſs, ad Aſſverus Konungur hafde geſed ut ſo grimma Skrifun.

Pa Mardocheus fornam allt þad ſem ſkied var, þa reif hann ſijn Klæde, og færde ſig j Seck og Oſku, og gieck vt midt j Stadenn, griet hratt og aumlega,

2. Og kom fyrer Kongſins Port, þvi eingenn mætte ſa ganga jnn um Kongſins Port, ſem eirn Seck yfer ſier hafde.

3. Og j ollum Londum, j hvorn Stad ſem Kongſins Ord og Bifalning kom, þar var eirn mikell Harmur a medal Gydinga, og marger foſtudu, grietu*, og ſyrgdu, og lææu j Seck og Oſku. * Luc. 18, 7. 8.

4. Pa komu Pionuſtumeyar Esther, og hennar Herbergis Sveinar, og underviiſudu henne þetta. Pa vard Drottningenn miog ottaſleigenn. Og hun ſende Mardocheo Klæde ad jklædaſt, og færa ſig af Secknum, enn hann villde ei medtaka þau.

5. Pa kallade Esther til ſijn Hathach, eirn af Kongſins Herbergiaſveinum, ſem ſtodu fyrer henne, og baud honum um Mardocheum, ad hun feinge ad vita hvad þad var, og þvi hann liete ſo?

6. Pa gieck Hathach vt til Mardocheum, a ſtræte Borgarennar, ſem var fyrer Kongſins Porte.

7. Og Mardocheus ſagde honum allt hvad honum var ad hondum komed, og fra þeirre Summu Silfurs, ſem Aman hafde ſagt, ad hann villde vega jnn j Kongſins Skatthuſ, vegna Gydinganna, til ad glata þeim.

8. Og hann fieck honum eina vtſkrift af þeirre Bifalningu ſem uppfeſt var j Suſan, ad þa ſkyllde eydeleggia, ad hann ſynde Esther hana, og hann kunngiörde henne, og byde henne, ad hun geinge jnn fyrer Kongenn, og giörde eina Bæn til hans, og vitiade hans fyrer hennar Folk.

9. Og nu ſem Hathach kom jnn, og kunngiörde Esther Mardocheí Ord,

10. Pa ſagde Esther til Hathach, og baud honum ſo til Mardocheum.

11. Ollum Kongſins Pienorum er þad vitanlegt, og Folkenu j Kongſins Lande, ad hvor ſa Madur ſem geingur jnn til Kongſins fyrer jnnann Gardinn, hvort þad er helldur Madur eda Kvinna, ſem ecke er kalladur, hann ſkal ſtrax deya (nema ſo ſie, ad Kongurenn riette ad honum ſijna Gullſpijru, ſo ad hann hallde Lijfenu,) Enn j Priatiju Daga hefe eg ecke kollud vered jnn fyrer Kongenn.

12. Og þa þeſſe Ord Esther voru ſogd Mardocheo,

13. Pa baud Mardocheus ad ſeigia Esther aptur, Eige ſkallt þu hugſa, ad þu muner frelſa þitt Lijf, fyrer þad, ad þu ert j Kongſins Hvoſe, helldur enn aller Gydingar.

14. Og þo þu vilier þeigia a þeſſum Tijma, þa mun þo Gydingunum koma Frelſan og Hiaalp vor einhvorium odrum ſtad, enn þu og þitt Fodurs Hvs mun þa fyrerfaraſt. Og hvor veit nema þu ſiert fyrer þeſſa Tijma ſaker komenn til Kongsrijkeſins?

15. Pa baud Esther ad ſeigia Mardocheo.

16. Far og kalla ſamann alla Gydinga, þa ſem nu eru heima j Suſan, og faſted fyrer mig, ſo þier hvorke eted nie drecked j þria Daga, hvorke Dag nie Nott, Eg og mijnar Pionuſtumeyar vilium lijka ſo faſta. Og þa vil eg ganga jnn fyrer Kongenn j moote Logmaalenu, Ef eg dey, þa dey eg.

17. Mardocheus gieck j burt, og giörde allt þad ſem Esther hafde honum boded.

# V. Capitule.

Su Firſta Veitſla er Esther giörde Konungenum og Aman.

Og a þeim þridia Deige ſkryddeſt Esther Konunglegum Skrvda, og gieck jnn j Forgardenn ad Kongſins Hollu jnnan til giegnt Kongſins Herberge. Og Kongurenn ſat j ſijnu Konunglega Hæſæte gagnvart Hvsdyronum.

2. Og

2. Og þegar Kongurenn sa Esther Drottningu standande j Forgardenum fann hun Naad fyrer hans Augum. Og Kongurenn vtrietti Gullspijruna þa hann hafde j sinne Hende, ad Esther. Hun gieck ad, og snart Oddenn a Spijrunne.

3. Þa sagde Kongurenn til hennar, Esther Drottning! Hvad er þier? Og hvors beidest þu? Þo þu bidier um helft mijns Rijkes, þa skal þier giefast þad.

4. Esther svarade, Ef þad þocknast so Kongenum, þa bid eg, ad Kongurenn kome j Dag, og Aman, til þess Giestabods sem eg hefe tilbwed honum.

5. Kongurenn sagde, Fared sem skiotast og kalled a Aman, ad hann giore so sem Esther hefur sagt. Og sem Kongurenn og Aman voru komner til Giestabodsins, hvort Esther hafde tilbwed,

6. Sagde Kongurenn til Esther, þa hann hafde nu drucked Vijn, Hvor er Bæn þijn Esther? þad skal þier veitast, Hvad gyrnest þu? þo þad være helmingur mijns Kongsrijkes, þa skal þad skie.

7. Þa svarade Esther, og sagde, Mijn Bæn og Bon er þad.

8. Hafe eg funded Naad fyrer Kongenum, og ef þad lijkar Kongenum, ad veita mier mijna Bæn, og ad giora sem eg bid, þa kome Kongurenn, og Aman, til þess Giestabods sem eg vil tilreida fyrer þeim, So vil eg giora a Morgun so sem Kongurenn hefur sagt.

9. So gieck Aman vt a þeim Deige gladur og med godum Huga. Enn sem hann sa Mardocheum j Kongsins Porte, ad hann stood ecke upp, og hrærde sig hvørge fyrer honum, vard hann fullur af Reide vid Mardocheum.

10. Enn hann stillte sig þo. Og sem hann kom heim, þa sende hann vt, og liet saman kalla sijna Vine, og sijna Hustru Seres.

11. Og framm talde fyrer þeim sijna Rijkdoms Dyrd, og fiolda sinna Barna, og so allt saman, hvornenn ad Kongurenn hafde miklad hann og upphafed, framm yfer alla Kongsins Hofdingia og Þienara.

12. Eirnenn sagde Aman, Og Drottningenn Esther liet ongvann koma med Kongenum til Giestabodsins sem hun tilbioo utan mig, eg er og so bodenn til hennar a Morgun med Kongenum.

13. Enn allt þetta nægest mier ecke, so leinge sem eg sie þann Gyding Mardocheum sitia hia Kongsins Porte.

14. Þa svarade hans Kvinna Seres honum, og aller hans Viner, Giorest þar eitt Trie fimmtijge alna hátt, og seig þu a Morgun til Kongsins, ad Mardocheus sie heingdur a þvi, so kiemur þu gladur til Giestabodsins med Kongenum. Þetta lijkade Aman vel, og hann liet tilbwa Tried.

## VI. Capitule.

Mardocheus er upphafenn til Storrar Virdingar og Tignar.

Enn a þeirre Noott gat Kongurenn ecke sofed, og hann baud ad sækia skyllde Annala Bækur, og Sogur. Og þa þær voru lesnar fyrer Kongenum,

2. Þa kom þar ad sem skrifad var, Hvornenn ad Mardocheus hafde undervijsad um þa Tvo Kongsins Herbergis Sveina, Bigthana og Theres, þeir ed giættu Kongsins Dyra, Hvorsu þeir hofdu bored Raad saman med sier, ad leggia sinar Hendur a Assverum Kong.

3. Og Kongurenn sagde, Hvor Æra og Vegsemd er Mardocheo giord fyrer þetta? Þa sogdu Smaasveinar Kongsins, sem honum þionudu, Eckert hefur hann þar fyrer feinged.

4. Og Kongurenn sagde, Hvor er þar j Gardenum? (Þviad Aman gieck j Gardenum utan fyrer Kongsins Herberge, þviad hann villde seigia Kongenum, ad þeir mætte heingia Mardocheum a þad Trie sem hann hafde tilbwed honum.)

5. Og

5. Og Kongsins Smaasveinar sogdu til hans, Sioa, Aman stendur j Gardenum. Kongurenn svarade, Laated hann koma jnn hingad.

6. Nu sem Aman var jnn komenn þa talade Kongurenn til hans, Hvad skal giora þeim Manne hvorn Kongurenn vill giarnan vegsama? Og Aman hugsade med sier, Hvorn mun Kongurenn vilia vegsama helldur enn mig?

7. Og Aman sagde til Kongsins, Sa Madur sem Kongurenn vill giarnan heidra

8. Hann skal sækiast, og jklædast þeim Konunglegum Klædnade, sem Kongurenn plagar ad bera, so og sie sooktur sa Hestur sem Kongurenn rijdur sioalfur a, og skal setia Kongsins Koronu a hans Hofud.

9. Og þetta sie afhendt, bæde Klædnadurenn, og Hesturenn, j Hendur einum af Kongsins Hofdingium, sa same skal klæda þann Mann sem Kongurenn vill giarnan heidra, og leida hann a Hestenum, um Stræte Borgarennar, og laata vthroopa fyrer honum, So skal giora þeim Manne sem Kongurenn vill giarnan heidra!

10. Kongurenn sagde til Aman, Far strax, og tak Klædenn og Hestenn, sem þu hefur sagt, og gior þetta, sem þu mællter, Mardocheo Gydinge, sem hier situr fyrer Kongsins Porte, Og laat ecke eitt bregdast af ollu þessu, sem þu talad hefur.

11. Pa took Aman Klædenn og Hestinn, og jfærde Mardocheum, og leidde hann um Stræte Borgarennar, og kallade hoatt fyrer honum, So skal giora þeim Manne sem Kongurenn vill heidra!

12. Og Mardocheus kom aptur fyrer Kongsins Port. Enn Aman foor sem skiotast heim til sijns Hwss, syrgiande, og med huldu Hofde.

13. Og hann greinde sinne Kvinnu Seres, og so ollum sijnum Vinum, fra ollu þessu sem hann hafde hendt. Pa sogdu til hans Hans Spekingar, og hans Kvinna Seres, Ef ad Mardocheus er af Gydinga Sæde, fyrer hvorium þu ert til tekenn ad falla, þa munt þu ei megna ad standa hia hnum j moote, helldur muntu falla fyrer honum.

14. Og er þeir voru enn nu ad tala þetta vid hann þa konu Kongsins Herbergia Sveinar þangad, og neyddu Aman ad hann skyllde koma til þess Giestabods sem Esther hafde reidubwed.

## VII. Capitule.

Esther giorer Konungenum og Aman Veitslu i annad Sinn.

Pa ad Kongurenn var nu komenn med Aman til Giestabodsins, þess sem Drottningenn Esther hafde tilreidt,

2. Pa sagde Kongurenn enn annann Dagenn aptur til Esther, þa hann hafde drucked Vijn, Hvors beidest þu Esther Drottning, ad þier skule veitast, og hvor er Bon þijn? Po þad være helmingur mijns Rijkis, þa skal þad skie.

3. Esther Drottning svarade, og sagde, Hafe eg funded Naad fyrer þier Kongur, og ef þad lijkar Kongenum, þa gief mier mitt Lijf fyrer skulld minnar Bænar, og so mijnu Folke vegna minnar Beidslu.

4. Pviad vier erum sellder, Eg og Mitt Folk, so vier skulum eydeleggiast, drepast, og j hel slaast. Og Gud giæfe, ad vier værum sellder til Præla og Ambaatta, so munda eg þegia, so munde og Ovinurenn ongvann skada Kongenum giora.

5. Pa mællte Assverus Kongur, og sagde til Esther Drottningar, Hvor er sa? Eda hvar er hann hvors Hiarta slijkt dirfest ad taka sier fyrer ad giora?

6. Esther svarade, Sa Ovinur og Mootstandare er þesse hinn Vonde Aman. Enn Aman vard hræddur vid Konginn og Drottninguna.

7. Og Kongurenn stood upp fra Giestabodenu, og fra Vijnenu, med reidum Hug, og gieck j Alldingardinn hia Hollinne. Og

Aman stood upp, og bad Esther Drottningu um sitt Lijf, þvi hann sa, ad honum var alla reidu Olucka bwenn af Kongenum.

8. Nu sem Kongurenn kom jnn aptur wr Alldingardenum hia Hwsenu jnn j Salenn, þar hann hafde Maaltijd teked, þa laa Aman a Becknum, þar sem Esther sat. Þa sagde Kongurenn, Vill hann og so slaa Drottningena jhel hier j Hwse hiaa mier? Þa þad Ord gieck wt af Kongsins Munne, þa birgdu þeir Amans Andlit.

9. Og Harbona, einn af Herbergia Sveinum Kongsins, sagde, Siaaed, þar stendur eitt Trie j Amans Garde, Fimmtijge aalna haatt, hvort hann hefur tilbwed Mardocheo, sa sem gott talade Kongsins vegna. Þa sagde Kongurenn, Heinged hann þar a.

10. Og so heingdu þeir Aman a þvi Trie, sem hann hafde tilbwed Mardocheo. Og so stodvadest Kongsins Reide.

## VIII. Capitule.

Gydingar faa Leyfe af Konungenum ad hefna sijn a þeirra Ovinum.

Og a þeim Deige gaf Assverus Kongur Esther Drottningu Amans Hws Ovinar Gydinga. Og Mardocheus kom fyrer Kongenn, þvi Esther hafde sagt honum, Hvornenn hann var henne naaenn.

2. Og Kongurenn took af sier sinn Fingurbaug, sem hann hafde teked aptur af Aman, og gaf Mardocheo. Og Esther sette Mardocheum yfer Hws Amans.

3. Og Esther talade enn framar meir til Kongsins, og fiell til Foota honum, og bad med graate, ad hann villde j burtu taka Illsku Amans Agagiter, og hans Aform, sem hann hafde uppþeinkt moot Gydingum.

4. Þa riette Kongurenn Gullspijruna ad Esther, og Esther stood upp, og gieck til Kongsins.

5. Og sagde, Ef þad þocknast Kongenum, og hafe eg funded Naad fyrer honum, og þad hage Kongenum, og eg þocknast honum, Þa sie skrifad og aptur kallad Naadargiordar Brief Amans, Sonar Medatha Agagiters, sem hann skrifade, ad Gydinga-Folk skyllde dreped verda, j ollum Kongsins Londum.

6. Þviad hvornenn maa eg horfa a þad vonda, sem koma mun yfer mitt Folk? Eda hvornenn maa eg siaa uppa þad, ad mijtt Ett skal so fyrerfarast?

7. Þa sagde Assverus Kongur til Drottningar Esther, og til Mardocheum Gydings, Siaa, eg hefe giefed Esther Hws Amans, enn hann hafa Menn heingt a Gaalga, þviad hann lagde sijnar Hendur a Gydinga Folk.

8. Þar fyrer skrifed þid nu vegna Gydinga, so sem yckur lijkar, under Kongsins Nafne, og jnnsigled þad med Kongsins Hring. Þviad allt þad sem skrifad er under Kongsins Nafne, og er sijdan jnnsiglad med hans eigenn Hring, þad maatte eingenn Mann (a) aptur kalla.

(a) Þad er, med þvi ad Brief Amans voru jnnsiglud med Kongs Innsigle, þa slodade Gydingum ecke nema þau være med ødrum Briefum aptur kollud.

9. Þa voru kallader Kongsins Skrifarar, a þeim sama Tijma, a þeim Þridia Maanude, þad er sa Maanudur * Siuan, a þeim Þridia og Tuttugasta Deige. Og þar var so skrifad sem Mardocheus bijfalade, til Gydinganna, og til Hofdingianna, Hirdstiooranna, og Hofudsmannanna j Londunum, fra Indialande, og allt til Morlands, sem var Hundrad, Sio og Tuttugu Lond, hvoriu Lande epter sinne Skrift, og hvoriu Folke epter sijnu Tungumaale, og so til Gydinganna, epter þeirra Skrift og Tungumaale.

* [Sivan er Junius.]

10. Og þetta var skrifad under Kongsins Assverus Nafne, og jnnsiglad med Kongsins Hring. Og hann sende Briefenn med rijdande Sendemonnum a ungum Mwlum,

11. Hvar jnne ad Kongurenn gaf Gydingum Leyfe, hvar sem þeir være j Stodunum, ad safnast samann, og ad standa fyrer sijnu Lijfe,

Lijfe, og ad afmaa, drepa, og deyda alla Magt þess Folks og Lands sem ad þeim þreyngde, med þeirra Kvinnum og Bornum, og ad ræna þeirra Gotse.

12. A einum Deige, j ollum Kongs Assveri Londum, sem var sa Prettande Dagur j þeim Tolfta Maanude, þad er sa Maanudur * Adar.

* [Adar Martius.]

13. Enn Innehalld Briefanna var þetta, ad ein Bifalning være wtgiefenn yfer oll Lond, og skyllde opennberast fyrer ollu Folke, ad Gydingarner være vidbwner a þeim Deige, ad hefna sijn a sijnum Ovinum.

14. Og þeir rijdande Sendemenn a Mwlum ridu sem mest og skiootast epter Skipan Kongsins. Og þesse Bifaling var uppslegenn j Susan Slote.

15. Og Mardocheus gieck wt fra Konge-num j Konunglegum Klædum, gulum og hvij-tum, og jklæddur einum Mottle af Lijne og Purpura, med eina stoora Gullkoronu. Og Borgenn Susan gladdest og vard fag-nande.

16. Enn Gydingum var komed Lioos og Fognudur, Glede, og Dyrd.

17. Og j ollum Londum og Borgum, j hvorn Stad sem Kongsins Ord og Bodska-pur naade, þa vard þar Glede og Fognudur og medal Gydinganna, Giestabod og Glede-Dagar, so ad marger af Lands Folkenu giordust Gydingar, þviad Otte Gydinga fiell yfer þa.

## IX. Capitule.

Og (I) Gydingar (I) hefna sijn a sinum Ovinum: Og (II) Insetia þa Hoatijd Purim.

I. A þeim Tolfta Maanude, þad er sa Maanudur Adar, a þeim Prettanda Deige, hvorn Kongsins Ord og Skipan hof-du akveded, ad þar skyllde skie, a þeim sama Deige, þa Oviner Gydinganna vonudu ad yferfalla þa, þa snerest þad so, ad Gydin-garner aattu ad falla yfer sijna Ovine.

2. Þa samansofnuduft Gydingarner j þeir-ra Borgum, j ollum Kongs Assveri Londum, ad leggia Hendur a þa sem þeim villdu vondt. Og eingenn kunne ad standa þeim jmoot, þviad þeirra Otte var komenn yfer allt Folk.

3. Og aller Hofudsmenn j Landenu, Hof-dingiar og Landstiornarar, og Kongsins Em-bættis-Menn upphoofu Gydingana, þviad Otte Mardochei kom yfer þa.

4. Þviad Mardocheus var nu ordenn megtugur j Kongsins Garde, og hans Rik-te hlioomade wt um oll Lond, Hvorsu honum fære framm, og hann mikladest.

5. So sloou nu Gydingarner alla sijna Ovine med Sverdsslage, draapu þa og sloou þa jhel, og giordu vid þa, sem þeirra Oviner voru, epter sijnum Vilia.

6. Og j Hofudborgenne Susan sloou Gydingarner Fimm Hundrud Manns jhel, og draapu þa.

7. Þar med draapu þeir og so Parsan-datha, Dalphon,

8. Aspatah, Poratha, Adalia, Arida-tha.

9. Parmastha, Arissai, Aridai, og Vaie-satha.

10. Þa Tiju Sonu Amans, Sonar Me-datha, Ovinar Gydinganna, enn þeir logdu ecke sijnar Hendur a þeirra Gots.

11. Enn a þeim sama Tijma kom Talann þeirra Lijflaatnu fyrer Kongenn a Susan Slote.

12. Og Kongurenn sagde til Esther Drottningar, Gydingarner hafa sleiged Fimm Hundrud Menn jhel, og dreped a Susans Slote, og þa Tiju Sonu Aman, Hvad munu þeir giora annarstadar j Kong-sins Londum? Hvad ooskar þu ad þier veitest meira? Eda hvors bidur þu framar meir?

13. Esther svarade, Ef þad þocknast Kon-genum, þa leyfe hann Gydingum, ad so sem þeir hafa giort j Dag, so meige þeir gio-ra og a Morgun j Susan, ad þeir heinge uppa þad Trie Tiju Sonu Aman.

14. Og Kongurenn baud ad so skyllde skie.

Og þesse Bifalning var uppsleigenn j Susan, og þeir Tiju Syner Amans voru heingder.

15. Og Gydingarner søfnuduſt tilſamans j Susan, a þeim Fiortanda Deige j Moanude Adar, og droapu þa enn Þriu Hundrud Manns, j Susan, enn þeirra Gotse rœntu þeir ecke.

16. Enn þeir adrer Gydingar j Kongsins Londum komu tilſamans, ad veria Lijf sitt, og ad þeir mætte noa Frid fyrer sijnum Ovinum, og þeir droapu af þeirra Ovinum Fimm og Siotijge Þusunder, enn þeirra Eigner lietu þeir kirrar.

II. 17. Pad skiede a þeim Þrettanda Deige j Moanude Adar, enn þeir hvijlduſt a Fiortanda Deige j sama Moanude, þann giørdu Menn til Veitslu og Glede-Dags.

18. Enn þeir Gydingar, sem voru j Susan, voru komner tilſamans, bæde þann Þrettanda og Fiortanda Dag, og hvijlduſt a þeim Fimmtanda Deige, ſa Dagur giørdeſt ad Gieſtabods og Glede-Deige.

19. Þar fyrer giørdu þeir Gydingar sem biuggu j Smoaſtødum, og Kauptunum, þann Fiortanda Dag j Adar Moanude til Gieſtabods og Glede-Dags, og hvor sende ødrum Skeinkingar.

20. Og Mardocheus Brieffsette þeſſa Giørninga, og sende Briefenn til allra Gydinganna sem voru j øllum Kongs Aſſveri Londum, bæde nærre og fiærre.

21. Ad þeir skylldu medtaka og hallda þann Fiortanda og Fimmtanda Dag j Moanude Adar, a hvøriu oare.

22. Epter þa Daga a hvørium Gydingar voru komner til Rooſemdar, fyrer sijnum Ovinum, og epter þeim Moanude, a hvørium þeirra Hørmung snereſt til Fagnadar, og þeirra Sorg til Glede-Dags, ad þeir skylldu hallda þa somu Daga fyrer Gieſtabods og Glede-Daga, og ad senda hvor ødrum Skeinkingar, og giefa þeim Foatæku.

23. Og Gydingarner vidtooku ad giøra þad sem þeir høfdu uppbyriad, og þad sem Mardocheus skrifade þeim til.

24. Hvornenn Aman, Son Madatha Agagiter, Ovinur allra Gydinga, hafde huglagt ad fyrerkoma øllum Gydingum, og liet kaſta Hlutum, ad hræda þa, og fyrerkoma þeim.

25. So og, Hvornenn Esther gieck jnn fyrer Kongenn, so ad Kongurenn mællte, ad hans vonde Aſetningur, sem hann hafde hugsad jmoote Gydingum, skyllde fyrer Brief snuaſt yfer hans eiged Høfud, og hvørsu hann og hans Syner med hønum voru heingder a Trie.

26. Af þeſſu kolludu þeir þeſſa Daga Purim, af Hlutfallsins Nafne, epter øllum Ordum þeſſa Briefs, og hvad þeir høfdu sioalfer sied, og til þeirra hefde komed.

27. Og Gydingarner uppsettu þetta, og tooku þad uppa sig og sitt Sæde, og a alla þa sem sig goafu til þeirra, Ad þeir villdu j ongvann moata yferganga þad, ad hallda þeſſa Tvo Daga oarlega, epter þvi sem þeir voru skrifader og oakvardader.

28. Ad þeſſer Tveir Dagar skylldu ecke forgleymaſt, helldur skylldu þeir halldaſt hioa þeirra Barna Børnum, og hioa øllum þeirra Ættmønnum, j øllum Londum og Borgum. Þeſſer eru þeir Dagar Purim, hvørier ecki skulu yfer trodaſt a medal Gydingalyds, og ad þeirra Minning skal j ongvann moata nidur falla hioa þeirra Sæde.

29. Og Esther Drottning, Dotter Abihail, og Mardocheus Gydingur, skrifudu med øllu Vallde, ad stadfeſta þetta annad Brief um Purim.

30. Og þau sendu Briefenn til allra Gydinga, um Lond Aſſveri Kongs, sem voru ad tølu Hundrad Tuttugu og Siø, med Ordum Kiærleiks og Sannleika.

31. Ad þeir skylldu stadfeſta þeſſa Daga Purim, a sijnum Tilsettum Tijma, so sem Mardocheus Gydingur hafde tilsett þeim, og Esther Drottning, so sem þeir høfdu underbundeſt uppa þeirra Soaler, og þeirra Sæde, ad hallda þeſſa Giørninga Foſtunnar og þeirra Kalls.

32. Og

32. Og Esther bifalade ad stadfesta þessa Giorninga Purim, og ad þeir skylldu skrifast j eina Book.

## X. Capitule.

Um Heidur og Vellde sem Mardochæus hlaut, og um hans Fromlynde.

Og Assverus Kongur lagde Skatt a Landed, og Eyar Siaafarins.

2. Enn aller hans Giørningar, Vellde og Magt, og su mikla Vegsemd Mardochei, sem Kongureñ veitte* honum, Sioa, þad er skrifad j Konganna Chronikum, j Persia og Meden.

* [Mardocheus (var) upphafenn a 12. Aare Assveri, og lifde 197. Aar.

3. Þvi Mardocheus Gydingur var nærstur Assverus Konge, Megtugur a medal Gydinga, og Þeckur øllum sijnum Brædrum, Hvør ad leitade goods fyrer sitt Folk, og lagde hid besta til med øllu sijnu Sæde.

Ender a Bookenne Esther.

# Formaalenn yfer Bookena Job.

Þesse Jobs Book talar um þa Spurning, Hvørt ad Olucka þeirra hinna Riettferdugu kome af Gude til? A þvi stendur hier Job stadfastlegana, og helldur þad vissulega fyrer satt, Ad Gud legge Pijnu eirnen a hina Riettlaatu, fyrer Saklcyse, alleinasta sier sialfum til Dyrdar, so sem Christur seiger, Joh. 9. um þann sem Blindur var borenn.

Enn þar a moote mæla hans Viner, og hafa þar miøg mørg Ord og langa Rædu um þad, og villa forsvara Guds Riettlæte, ad hann sie Riettlaatur, so hann refse øngvum Saklausum, Enn sie þad so, ad hann veite einhvørium nockra Hirting, þa hlytur sa hinn same vid hann brotlegur hafa vered. Og hafa so j slijku eina veralldlega og mannlega Þancka um Gud og hans Riettlæte, alijka sem være hann so sem adrer Veralldar Menn eru, og hans Domar eins sem Heimsins Domar.

Enn þo ad Job, lijka sem sa ed staddur er j Daudans Naud, tale noogu margt, wt af mannlegum Breiskleika, a moote Gude, og misgiører so med Oþolennmæde, þa helldur hann þo samt a þvi, Ad hann hafe ecke forþienad slijka Pijnu, helldur enn adrer Menn, hvad og satt var. Enn ad lycktunum wrskurdar Gud sialfur þad so, ad Job, þad hann talade a moote Gude j Pijnunne, þa hafe haun þad ranglega talad, Enn þad, hvad hann hefur hallded wt af sijnu Saklcyse, a moote sijnum Vinum, fyrr enn þad Mootgangurenn took yfer ad dynia, þa hafe hann þad sama riettelega talad, Enn hier med þa leider þesse Book Historiuna ad lycktunum þangad, ad Gud sie alleinasta Riettlaatur, og þo samt þa kunne eirn Madur j moote annars Manns Akiæru lijka fyrer Gude Riettferdugur ad verda.

Enn þetta hid sama er oss til Huggunar skrifad, Þad Gud lætur sijna so Dyrdarlega aastvine og Stoorheilaga Menn hrasa so miøg, sierdeilis j Mootgangenum. Þviad aadur fyrr enn Job kom j Daudans Angist, þa losar hann Gud, lijdande Þolinmoodlega burtsvipting sinna Audæfa, og Lijftioon sinna Barna. Enn sem þad Daudenn tekur ad ganga hønum sialfum under Augunn, og Gud tekur ad vijkia so sem j burt fraa hønum, þa sijdan utvijsa hans Ord klaarlega, hvad Madurenn hugsar, j Daudans Angist um Gud, (hvørsu Heilagur sem þad hann er) Hvørnenn hønum þyker þa, þad Gud sie eingenn Gud, helldur ad eins eirn hardur Domare, og bistur Vijkingur, sa sem Ofrijke syner, og eige skeyter um nockurs Manns gott Framferde. Og þetta er su allra sierlegasta Grein, og Meining þessarar Bookar. Enn þetta understanda alleinasta þeir hiner sømu, sem sialfer hafa reynt, hvad þad er, ad liggia under Guds Doome og Reide, og um stund ad missa hans Raad.



Jobs

# Jobs Book.

## I. Capitule.

Jobs (I) Gudhrædsla; (II) Skade; (III) Þolenmæde.

I. Þar var eirn Madur j Lande Uz, hann hiet (a) Job, Sa same Madur var Einfalldur, Riettlaatur, Gudhræddur, og fordadest hid vonda.

(a) Job er Jobab Kongur Edom, Gen. 36, 34. hioa Arabia hinne godu, J Arabia Petrea, med þvi ad þeir Sabei falla yfer hann.

2. Hann aatte sio Sonu, og þriar Dætur.

3. Og hans Kvikfie var Sio Þusunder Sauda, þriar Þusunder Ulfallda, Fimm Hundrud Þor Uxa, Fimm Hundrud Ösnur, og miog morg Hiw, Og hann var (b) Agiætare enn aller þeir adrer sem biuggu j Austur aalfunne.

(b) Ei vegna Riikdoms, nie Magtar, helldur fyrer saker Viisdoms, Skilnings, og Gudhrædslu, þa hefur hann veglegre og Agiætare halldenn vered enn adrer.

4. Og hans Syner fooru til og giordu Giestabod, hvor j siinu Hwse a siinum Deige, og þeir sendu wt, og budu Systrum siinum Þremur til ad eta og drecka med sier.

5. Og þa eirn Giestabods Dagurenn var umlidenn, sende Job burt, og helgade þa, og stood upp snemma Morguns, og offrade Brennefoornum, epter allra þeirra Tolu, þviad Job hugsade so, Skie maa, ad Syner mijner hafe syndgast, og blessad GUD j siinum Hiortum. So giorde Job alla Daga.

II. 6. So bar til eirn Dag, ad Guds Born komu og geingu framm fyrer DROttinn, þa kom og Satan a medal þeirra.

7. Og DROttinn sagde til Satans, Hvadan komstu? Satan svarade DROttne, og sagde, Eg hefe fared j giegnum Landid umkring.

8. DROTTinn sagde til Satan, Giætter þu ecke ad mijnum Þienara Job? Þviad hans Lijke er ecke j Landenu, Einfalldur, Riettlaatur, Gudhræddur, og fordast þad Vonda.

9. Satan svarade DROTTne, og sagde, Meinar þu, ad Job ootteft GUD fyrer eckert?

10. Hefur þu ecke verndad hann, hans Hwss, og allt þad hann hefur allt um kring? Þu hefur blessad hans Handaverk, og hans Gots hefur wtbreidt sig j Landenu.

11. Enn riett þu þijna Hend wt, og svipt til alls þess sem hann hefur, Hvad gilldet, hann mun (c) Blessa þig under Augun?

(c) (Blessa) Merker hier ad bolva og spotta.

12. DROTTinn sagde til Satans, Siaa, allt þad ed hann hefur, þad sie hier j Hende, utann þad Einasta, ad þu legg eige þijna Hond a hann sialfann. Þa gieck Satan wt fra DROttne.

13. Og a þeim Deige, þa hans Syner og Dætur aatu og drucku Vijn j Hwse siins Frumgietna Brodurs,

14. Þa kom eirn Sendebode til Jobs, og sagde, Uxarner plægdu, og Ösnurnar voru þar j Haganum hiaa þeim,

15. Þa fiellu þeir af Rijke Arabia wt, og tooku þa, og sloou Þionustu-Mennena med Sverds Eggium, og eg komst eirn undann, ad kunngiora þier þetta.

16. Þa hann var enn nu ad tala þetta, þa kom eirn Annar, og sagde, Guds Elldur fiell af Himnum ofann, og brennde Fæde Saudena og Þionustumennena, og fortærde þeim, og eg komst eirn undann ad undervijsa þier þad.

17. Þa hann enn nu talade kom eirn og sagde, Þeir Chaldei giordu Þriar Fylkingar, og yferfiellu Ulfalldana, og j burt tooku þa, og jhelsloou Þionustumennena med Sver-

Sverds Eggium, og eg eirn komst undann ad kunngiora þier þetta.

18. A medann hann var þetta ad seigia þa kom eirn og sagde, Þijner Syner og Dætur ꜳtu og drucku j Hꝏse sijns Frumgietna Brodurs.

19. Og sióa þu, þar kom eirn mikell Stormur af Eydemorkenne, og steytte uppa þau Fiogur Hornenn Hꝏssens, og fleygde þvi nidur, yfer Sveinana, so ad þeir dóou, og eg komst eirn undann, ad eg undervijsade þier þetta.

III. 20. Þa stood Job upp, og jsundurreif sijn Klæde, og reitte sitt Hofud, og fiell til Jardar og tilbad.

21. Og sagde, Nakenn kom eg wt af minnar Modurkvide, * Nakenn mun eg og burt aptur fara. DROTTinn gaf, DROTtinn j burt took þad, Lofad sie Nafned DROTTins. * 1 Tim. 6, 7.

22. J ollu þessu syndgadest ecke Job, og eige giorde hann neitt Fꜳvijslegt j giegn Gude.

## II. Capitule.

Job (I) lijdur Kvaler a Lijkamanum; (II) er hæddur af sinne Hustru; (III) Viner hans koma til hans.

I. 1. Þad skiede a Deige nockrum, þa ed Guds Born komu, og geingu framm fyrer DROTTinn, þa kom Satan a medal þeirra, og gieck framm fyrer DROTtinn.

2. Þa sagde DROttinn til Satans, Hvadann komstu? Satan svarade DROttne, og sagde, Eg hefe genged j giegnum Landed allt umkring.

3. DROttinn sagde til Satans, Hefur þu ecke giefed giætur ad mijnum Þienara Job? Þviad hans Lijke er ecke j Landenu, Einfalldur, Riettlꜳtur, Gudhræddur, og fordast hid Vonda, og helldur enn nu fast a sijnum Froomleika, enn þu hefur komed mier til ad eg hef fordiarfad hann fyrer Saklęyse.

4. Satan svarade DRottne og sagde, (a) Hꝏd fyrer Hꝏd, og allt hvad Madurenn hefur til, þa giefur hann fyrer sitt Lijf.

(a) (Hud) þad er, Fyrer sijna Hud lætur hann fara Born og Busmala, og Þienara, og hvorskins Hud.

5. Enn riett þu þijna Hond wt, og hrær hans Bein og Holld, hvad gillder? hann mun blessa þig under Augun.

6. DROTTinn sagde til Satans, Sióa þu, hann sie j þinne Hende, enn þirm þo hans Lijfe.

7. Þa gieck Satan wt fra Auglite Drottins, og sloo Job med jllum Sꜳrum, fra hans Ylium, til hans Hvirfels.

8. Og hann took eina Skiel, og skoof sig med, sitiande j Osku.

II. 9. Og hans Hꝏsfreya sagde til hans, Ert þu enn stadfastur vid þinn Froomleika? Jꜳ (b) Blessa þu GUd, og far ad deya.

(b) (Blessa GUd) þu giorer riett vel, þu lofar GUd, og þionar honum, og verdur þar fyrer j Grunn fordiarfadur.

10. Og hann sagde til hennar, þu talar sem Fꜳvijsar Kvinnur tala. First vier hofum medteked hid Gooda af Gude, Hvar fyrer skulum vier þa og ecke eirnenn lijka medtaka hid Vonda? J ollu þessu þa syndgade ecke Job med sijnum Vorum.

III. 11. Enn þa þeir Þrijr Viner Jobs heyrdu alla þa Olucku sem yfer hann hafde komed komu þeir, hvor af sijnum Stad, Eliphas af Theman, Bildad af Suah, og Zophar af Naema, þviad þeim kom ꜳsamt, ad þeir villdu koma og hafa medaumkan yfer honum, og hugga hann.

12. Og þa þeir upplyptu sijnum Augum ꜳleingdar, þecktu þeir hann ecke. Og þeir hoofu upp sijna Raust og grietu, og hvor þeirra sundurreif sijn Klæde, og joos j Lopted Molldu yfer Hofud sier.

13. Og þeir sꜳtu a Jordu med honum j Sio Daga, og Sio Nætur, og þeir toludu ecke neitt vid hann, þviad þeir sꜳu, ad hans Pijna var hardla mikel. III. Ep-

# III. Capitule.

Obolenumæde Jobs.

Epter þad upplauk Job sijnum Munne, og bølvade sijnum Deige.

2. Og Job svarade og sagde.

3. Fyrerfarest sa Dagur a hvorium eg em fæddur, og su Noott a hvørre sagt var, Sveinbarn er gieted.

4. Vere sa Dagur mirkur, og Gud hier ofan ad skyllde ecke spyria epter hønum, Eckert Lioos skyllde skijna yfer hønum.

5. Mirkur og Þoka skyllde yferfalla hann, Þick Skij skyllde vera yfer hønum, og Þokusvælann Dagsins giøre hann ognarlegann.

6. Og Mirkred jnntake þa Noott, so hun gledie sig ecke a medal Daganna aarsins, og kome hun eige helldur j Maanadanna Tolu.

7. Sia, vere su Noott einmana, og einginn gledskapur sie a henne.

8. Bølve henne þeir sem formæla Deigenum, og þeir sem reidubuoner eru til ad uppvekia þann Leviathan.

9. Stiørnur hennar verde mirkvar j hennar Rockre, hun vone epter Lioosenu, og þad kome ecke, og eige lyte hun Augabraon Morgunrodans.

10. Af þvi hun ei aptur luckte Dyrnar (a) mijns Kvidar, og byrgde ecke þa Ogiæfuna fyrer mijnum Augum.

(a) (Mijns Kvidar) af hvørium eg er fæddur, þad er, minnar Modur Kvid.

11. Hvar fyrer deyde eg ecke j Modurkvide? Þvi fyrerfoorst eg þa ecke þegar ad eg kom af minnar Modur Lijfe?

12. Hvar fyrer var eg lagdur j Kiølltu? Hvar fyrer var eg a Brioostе uppfæddur?

13. Þvi þa læge eg nu og være kirr, svæfe og hefde hvijld.

14. Med Kongunum og Raadsherrunum Jardarennar, sem biggia þad sem (b) Eyde er.

(b) (Eyde er) Þad er ad reysa upa Bygging þar sem aadur er eckert.

15. Ellegar med þeim Høfdingium sem Gulled eiga, og þeirra Hws eru full af Silfre.

16. Edur falenn so sem eirn otijma Vær Burdur, og være ecke neitt, so sem ad þau ungu Børnenn er alldrei sau Lioosed.

17. Þar verda hiner ogudlegu og omilldu ad laata af grimmdar ædenu, þar hvijla sig þeir ed haft hafa miked Erfide.

18. Þar hafa og Faangarner Frid hvør vid annann, og heyra ecke Kvalarans Hliood.

19. Þar eru bæde smaaer og stoorer, Þrællenn, og sa sem Frials er giefenn af sijnum Herra.

20. Hvar fyrer er Liosed giefed hinum Vesala, og Lijfed Sorgbitnum Hiortum.

21. (Þeim sem bijda epter Daudanum, og hann kiemur ecke, og græfe hann giarnann wt af Fiilsnunum.

22. Þeir sem gledia sig miøg, og eru glader vid þad, ad þeir meige komast til grafennar.)

23. Og sa Madur, hvørs Vegur ad byrgdur er, og GUd (c) byrger þann sama fyrer hønum.

(c) (Byrger) Hvad skal þeim ad lifa sem hann veit ecke fyrer Eymd, Hvørt hann skal, hønum er betre Daude.

24. Þvi þa nær eg skal Matar neyta hlyt eg ad andvarpa, og minn Greatur vtrennur sem Vatn.

25. Þvi þad hvad eg hræddest þad er yfer mig komed, og fyrer þvi sem eg kvijdde, þad hendte mig.

26. Var eg ecke luckusamlegur? var eg ecke ad hoofe spaklaatur? Hafde eg ecke gooda Hvijld? og þar kom soddann Oroo.

# IV. Capitule.

Eliphas byriar ad tala vid Job.

Þa svarade Eliphas af Theman, og sagde.

2. Kann vera, ad þu vilier ecke giarnan, þad Menn reyne til þess ad tala vid þig.

3. Enn hvor fær bundest þessa? Sioa, þu hefur frædt margann, og stirkt þreyttar Hendur.

4. Þijn Ræda hefur uppriett þa sem nidur voru fallner, og þu hefur stirkt þau skioalfande Knie.

5. Enn nu ad þad kiemur yfer þig, þa drypur þu nidur, og nu þad snerter þig, þa skielfest þu vid.

6. Er þad þijn Gudhrædsla, þitt Traust, þijn Von, og þinn Froomleike?

7. Kiære, hugsa þig um þad, Nær hefur hinn (a) Saklause nockurn Tijma fyrer farest? Eda hvar hafa hiner Riettferdugu nockurn Tijma vered afmoader?

(a) (Saklause) þad er, Nu moa sioa hvorsu Riettferdugur þu ert, ad Gud leggur slijkt Straff a þig

8. So sem eg hefe vel sied, ad þeir sem plægdu Armædu og nidursoadu Ogiæfunne, ad þeir uppskaru og þad sama.

9. Ad þeir tortijndust fyrer Guds Anda, og eru eydelagder af Anda hans Reide.

10. (b) Leonsins Grenian, og Hliood þess mikla Leonsins, og Tennur þeirra Ungu Leonanna eru j sundur brotnar,

(b) (Leonsins) Þesse Leon og Leonsinnur eru þeir Megtugu Ofrijkismenn a Jordunne, hvorier niburbrickia þeim Fatæku.

11. Leoned er tortijnt, so þadræner ecke framar, og Hvolpar Leons-innunnar eru j sundurtvijstrader.

12. Og eitt heimulegt Ord er komed til mijn, og mitt Eyra hefur medteked eitt Ordkorn af þvi hinu sama.

13. Þa ed eg hugleydde Synena a Noottunne, nær Svefnenn fellur yfer Mennena.

14. Þar kom Hrædsla og Skioalfte yfer mig, og skielfde oll mijn Bein.

15. Og þa ed Andenn gieck framm fyrer mier ysdust upp mijn Hoar, a mijnum Lijkama.

16. Þa stood þar ein Mind fyrer mijnum Augum, og eg þeckta ecke þann Svip, Hliodt var, og eg heyrde eina Raust.

17. Hvornenn moa Madurenn vera Riettvijsare enn Gud? Eda nockur Madur Hreinne enn sa sem hefur giort hann?

18. Sioa þu, Eingenn er Ostraffanlegur a mille hans Þienara, hann finnur og Foavitsku a medal sinna (c) Sendeboda.

(c) Eingla.

19. Hvorsu miklu framar j hioa þeim sem biggia j Leirhusunum, hvorier ad Grundvallan hafa a Jordunne, og uppetast skulu af Modkum?

20. Þad varer j fra Morgne, allt til Kvollds, þa verda þeir upphoggner, og oadur enn þa þess varer þa eru þeir olldungis j burtu.

21. Og þeirra Epterblifnu fyrerfarast eirnenn, og deya burt so ovarlega.

## V. Capitule.

Eliphas helldur afram j sijnu Samtale vid Job.

Nefn þu mier eirn, Hvad gillder ef þu finnur eirn? Sioa þig umkring epter nockurs hoattar (a) Heilogum.

(a) (Heilogum) þad er, Syn mier nockurn Heilagann so kvaliun saklausann so sem þu meinar: Foavijsa og Ofrooda kallar hann Ugglausa Menn, sem ecke skeyta um Gud, þvilijka fordiarfar Guds Reide og Vandlæting.

2. Foavijsann Mann þa fær vel Reidenn til heliar dreiged, og Vandlætingenn gietur Heimskum j hel komed.

3. Eg soa eirn galenn groodursettann, og eg bolvade snarlega hans Huse.

4. Hans Born skulu fiarlæg vera Hioalpvædenu, og þau skulu sundursloast j Borgarhlidunum, so ad þeim mun eingenn Hioalpare vera.

5. Hiner (b) Hungrudu skulu uppeta hans Haustvinnu, og hiner Hervopnudu skulu heim sækia hann, og þeir enu þyrstu þa skulu upp drecka hans Gots.

(b) Hungrada og þyrsta kallar hann Ræningia og Tyranna.

6. Þviad Armædann upp sprettur ecke wr (c) Jørdunne, og Giæfann vex ecke wr Akrenum.

(c) (Jørdunne) þad er, Slijkt forþienar Madur med Syndenne, annars kiæme þad ecke.

7. Helldur so, Madurenn fædest til Ogiæfunnar, lijka sem þad Fuglarner upphefiast til ad fliuga.

8. Þo vil eg nu tala um Gud, og skijra wt af honum.

9. Hann sem giorer Mikla hlute og Orannsakanlega, og þær Dᴏadsemder sem ecke kunna wt ad teliast.

10. Hann sem giefur Regned a Jørdena, og lætur Vatned koma a Veguna.

11. Hann sem upphefur hina Niðurþricktu, og hialpar hinum Harmþrungna upp.

12. Hann, hvør ed onyter Raadagiørder þeirra Jllkloku, so ad þeirra Hønd fær þvi ecke af stad komed.

13. * Hann høndlar hina Vijsu j þeirra Slægsmunum, og umvellter Raadum Raangferdugra. * 1 Cor. 3, 19.

14. So ad þeir hlaupa um Dagana j Myrkrenu, og fara fᴏalmande um Middeiged lijka sem a Noottenne.

15. Hann frelsar hinn volada fraa Sverdenu, og j fraa þeirra Munne, og j fraa Hende Vólldugra.

16. Og þad er Vonenn hins Fᴏatæka, ad Mann-Jllskañ hlytur ad hallda sijnum Munne til samans.

17. Siaa þu, * Sæll er sa Madur sem Gud leggur Hirting a, Þar fyrer þa fyrerlijt ecke Hirtingena Hins Almᴏattuga.

* Ebr. 12, 5. Jacob. 1, 12. Opb. B. 3, 19.

18. Þvi hann særer og græder, hann sundurslær, og hans Hønd læknar.

19. Hann mun frelsa þig ut af þeim sex Harmkvælum, og j þvi hinu siounda mun ecke neitt Jllt ahræra þig.

20. A Hallæristijdenne mun hann frelsa þig fra Daudanum, og j Strijdenu fra Sverdsins Hende.

21. Hann mun skyla þier fyrer Keire Tungunnar, so þu hrædest ecke Fordiorfunena, nær ed hun kiemur.

22. J Foreydslunne og Hungrenu munt þu hlæia, og fyrer Villudyronum j Landenu eige hræddur vera.

23. Helldur mun þinn (d) Sᴏattmᴏale vera vid Steinana a Folldunne, og þau Villudyrenn j Landenu munu hallda Frid vid þig.

(d) (Sᴏattmᴏal) Grioted, af hvøriu Veggerner eru giørder, mun geyma þitt Korn.

24. Og þu munt formerkia, ad þijn Tialldbwd hefur Frid, og þu munt utvega þad hvad heyrer til þijns Huss, og syndgast ecke,

25. Og þu munt þess var verda, ad þitt Sæde mun Margfalldlegt verda, og þitt Afkvæme sem Gras a Jordu.

26. Og þu munt j Elle koma til Grafarennar, lijka sem Bindene jnnflytst a sijnum Tijma.

27. Siaa, þad høfum vier rannsakad, og þad er so, Hlijd þessu og gief akt þar uppa.

## VI. Capitule.

Job svarar Eliphas til sinnar Rædu.

Job svarade og sagde.

2. Þar sem Madur villde vega Eymd mijna, og leggia mijna Pijnu til samans j eina Metaskᴏal,

3. Þa være þad þyngra enn Sandurenn j Sionum, þar fyrer er þad til onytis hvad eg tala.

4. Þviad Skeytinn Hins Almᴏattuga standa j mier, og þeirra Grimmd utsygur minn Anda, og Guds Ognaner eru stilltar uppa mig.

5. Skoogdyrenn (a) rymia ecke nær þau hafa Grasid, og Nauted beliar ecke nær þad hefur sitt Foodur,

(a) (Rymia)

(a) (Rymia) Meiningin er, Ydur er hægt ad aminna og hugga mig, ydur vantar ecke par.

6. Kann Madurenn ad eta þad sem osalltad er? Eda hvor gietur smackad þad hvijta sem utan um þad Rauda er j Eggenu?

7. Hvad mijn Sæl villde ædur ecke hræra, þad sama er nu ut af Angist mijn Fæda.

8. Oho! þad mijn Bæn mætte skie, og Gud hann giæfe mier þad eg vona epter.

9. Pad Gud hann tæke til ad melia mig j sundur, og liete sijna Hond ganga til ad sundur skipta mier.

10. Pa hefda eg enn Hugsvalan, og eg villda þar um bidia j mijnu Krankdæme, ad hann vægde ei ad eins, Eg hefe þo ecke neitad Ordrædu hins Heilaga.

(b) (Neitad) þad er, Eg hefe ecke forþienad slijka Plagu, Gud giæfe eg være Daudur.

11. Hvor er minn Kraptur, so þad eg kunne standast vid, og hvor er mijn Endalykt, þad mijn Sæl mune þolinmod vera?

12. Minn Kraptur er þo ecke af Steinum, og mitt Holld er ecke Kopar.

13. Eg hefe og hvorge neina Hiælp, og mijn Formegan er j burtu.

14. Hvor sem affseiger Miskunsemena sijnum Naunga, hann yfergiefur Ottann hins Almættuga.

15. Mijner Brædur ganga foroktunarlega framm hia mier sem annar Lækur, lijka sem adrar Vatnsræser þær ed framm hia fliota.

16. Po samt, þeir sem fordast Hrijmfrosted, yfer þa mun Sniorenn falla.

17. A þeim Tijma, þegar þreynger ad þeim Hitenn, mun þa (c) omætta upp, Og nær þar tekur ad hitna, munu þeir forganga ut af sijnum stodum.

(c) (Omætta) þad er, Med þvi mijner Vijner skreyma nu framm sem Vatn, og þeckia mig ei, mun Hitenn einhvern Tima þreyngia ad þeim.

18. Þeirra Vegur liggur affsijdis ut af, þeir ganga j þa Oveguna, og fyrerfarast.

19. Þeir horfa a þann Veigenn til Thema, og hyggia ad þeim Ferle til Rijkes Arabia.

20. Enn þeir munu til Skammar verda, nær þad er allra Uggalausast, og skammast sijn, nær ed þeir koma þangad.

21. Þviad þier erud nu komner til mijn, og med þvi þier siaed Vesolldena, þa ottest þier.

22. Hefe eg nockud sagt, Færed hingad, og skeinked mier nockud af ydrum Eignum?

23. Og frelsed mig af Hende Ovinarins, og frelsed mig af Vallde Vijkingsins?

24. Kienned mier, eg vil þeigia, og leidrietted mig um þad eg veit ecke.

25. Þvi finned þier ad riettu Mæle? Hvor er sa ydar a mille, ad ad þvi kunne ad finna.

26. Þier uppdickted Ord, ecke til annars enn ad straffa, og þier slaed Ordum hins Ohughrausta j Vind.

27. Þier yfergang veited Foatækum Fodurleysingia, og grafed Grof ydrum Naunga.

28. Þo, first þier hafed þetta so uppteked, þa hygged ad mier, hvort eg kann med Lygemæle ad standast fyrer ydur.

29. Svared þvi til hvad Riett er, mitt Andsvar skal enn vera riett.

30. Hvad gillder, ef mijn Tunga hefur oriett, og minn Munnur frammseiger þad vondt er.

## VII. Capitule.

Job klagar yfer Eymdarfullum Hag Mannskepnunnar i þessu Lijfe.

Hlytur Madurenn ecke alla Tijma j Strijde ad vera a Jordunne, og hans Dagar eru lijka sem eins Daglaunara?

2. Eins lijka so sem þad Þioonenn langar epter Skugganum, og Verkmannenn, ad hans Erfide fae Enda,

3. Lijka so hefe eg vel heila Mænudena erfidad til (a) forgiefens, og haft margar Eymdarfullar Nætur.

(a) (Forgiefins) þad er, Eg leitade hvijldar og enda a þessum þrautum, enn þad er forgiefins, þar er enn nu sijfelld Eymd og Onæþan.

4. Þa ad eg lagda mig utaf, sagde eg, Hvonar skal eg uppstanda? Og eptera, þa talde eg til, hvonar Kvollded munde koma, Þviad eg var med ollu hvors Manns Vidbioodur allt til Mirkurs.

5. Mitt Holld vellur allt af Modkum, og Ofloarendum, Mijn Hud er skorpenn og ad ongvo ordenn.

6. Mijner Dagar eru skyndelegar burtu flogner enn Vindann Vefarans, og eru so hioa farner, ad þar var eingenn Vidstada.

7. Hugleid þad, ad mitt Lijf er Vindur, og mijn Augu hverfa ecke aptur, til ad sioa þad Gooda.

8. Og einskis lifanda Auga þa mun sioa mig leingur, þijn Augu lijta a mig, þar af forgeing eg.

9. Skijed þad burt hverfur og lijdur, eins lijka og hann sem ofann fer j Grofena, hann kiemur eige upp aptur.

10. Og kiemur ecke aptur j sitt Hws, og hans Stadur þecker hann ecke leingur.

11. Þar fyrer vil eg og ecke aptra mijnum Munne, eg vil tala um þa Angist mijns Hiarta, og seigia af þeirre Hormungenne minnar Soalar.

12. Hvort er eg Sioafarhafed, edur Stoor Hvalur, ad þu gaumgiæfer mig so?

13. Nær eg hugsade, ad mijn Sæng skyllde hugsvala mier, og mijn Hvijla skyllde lietta mier nockud.

14. Nær eg talade vid sialfann mig, þa hrædder þu mig med Draumum, og komst mier til ad skielfast.

15. So ad mijn Soala æskte sier uppheingd ad vera, og mijn Bein Daudans.

16. Eg gyrnest ecke leingur ad lifa. Væg þu til vid mig, þviad mijner Dagar hafa vered til onytis.

17. Hvad er Madurenn þess ad þu virder hann mikels? Og ber Sorg fyrer honum.

18. Þu forvitnast um hann daglegana, og reyner hann a hvorre Stundu.

19. Enn þvi hefur þu þig ecke j burt fra mier, og lætur ecke af, þangad til ad eg verd upp ad svelgia sioalfs mijns eigenn Hraaka?

20. Hafe eg syndgast, hvad skal eg giora þier? O þu Mannanna Vardveitare! Hvar fyrer giorer þu mier þad, ad eg steyte mig so a þier, og er mier so sioalfum eirn Byrdarþunge?

21. Og þvi fyrerlætur þu mier ecke minn Misgiorning, og burt tekur ecke mijna Synd? Þviad nu mun eg leggia mig j Jordena, og nær ad Morgnenum er ad mier leitad, þa er eg ecke til.

## VIII. Capitule.

Bildad talar til Jobs.

Þa svarade Bildad af Suah, og sagde:

2. Hvorsu leinge villtu tala soddan? Og Ord þijns Munns hafa drambsamt Gied?

3. Hvort þeinker þu, ad Gud hann dæme rangsamlegana? Edur sa hinn Almaattuge umsnue Riettenum?

4. Hafe þijner Syner syndgast fyrer honum, þa hefur hann burt kastad þeim fyrer þeirra Misgiorda Saker.

5. Ef so er, ad þu giefur þig tijmanlega til Guds, og graatbæner hann enn Almaattuga,

6. Og ef þu ert hreinn og riettferdugur, þa mun hann uppvakna til þijn, og mun rietta vid Bwstadenn aptur fyrer þijns Riettlætis Saker.

7. Og hvad þu hefur aadur oflijted haft, þad mun hier eptera miked vid aukast.

8. Þvi spyr þu ad hinar forlidnu Kinkvijsler, og aaset þier ad spyria þeirra Forfedur.

9. Þviad vier erum fra þvi j Giærdag, og vitum eckert, Vorer Lijfdagar eru Skugge a Jordunne.

10. Þeir munu fræda þig, og seigia þier, og frammflytia sitt Maal vot af sijnu Hiarta.

11. Kann nockud Sefed ad vaxa, utann þad stande j Vatnenu, edur Grased upp ad spretta j Vatnsleysunne?

12. Ellegar þornar þad medan þad er j groodrenum, ædur enn þad er nidursleiged, ædur enn þad verdur hey.

13. So vegnar þad øllum þeim sem forgleyma GUde, og Vonenn Hræsnarans mun fortopud verda.

14. Þviad hans Athvarf þad forgeingur, og hans Von er eirn Konguloar Vefur.

15. Hann treyster uppa sitt Hws, og mun þo ei staded gieta, hann mun hallda sig þar vid, enn vera þo ecke stadfastur.

16. Hann hefur þo vel Vokvann ædur enn þad Soolenn kiemur upp, og hans Vidarkvister spretta vel j hans Jurtra Garde.

17. Hans Sæde stendur þickt hiaa Uppsprettunne, og hans Hws a Steinenum.

18. Enn þa, nær ed hann uppsvelgier hann af sijnum Stad, mun hann breita so vid hann, sem være hann hønum alls Okienndur.

19. Siaa þu, þad sama er Gledenn hans athæfes, og adrer munu wr Duptenu upp vaxa.

20. Þar fyrer þa siaa, ad GUd burt kastar ecke þeim hinu Goodu, og hann helldur ecke vid magt Høndum hinna Illgiørnu.

21. Þangad til ad þinn Munnur uppfyllest af Hlaatre, og þijnar Varer af Kiæte.

22. Og þeir sem þig hata munu til skammar verda, og Tialldbwder hinna Omilldu munu ecke stadest gieta.

## IX. Capitule.

Job svarar Bildad og hans Rædu.

Job svarade og sagde.

2. Jaa, eg veit þad nærsta vel, ad þad er so, ad Madurenn kann ecke riettferduglega ad standa a mote GUde.

3. Hafe hann Lysting til ad Þraatta vid hann, þa kann hann ecke ad svara hønum einu jmoote Þusund.

4. Hann er Vitur og Megtugur, hvorium luckadest þad nockurn Tijma vel sem settu sig a moote hønum?

5. Hann færer Fiøllenn wr Stad, ædur enn þau verda vor vid þad, þeim er hann umturnar j sinne Reide.

6. Hann hrærer Landed wr sijnum Stad, so ad þess Stoolpar hristast.

7. Hann seiger til Soolarennar, þa kiemur hun eige upp, og hann jnnsiglar Stiornurnar.

8. Hann alleina wtbreider Himenenn, og geingur a Bylgium Siaafarins.

9. Hann giører hann Vagnenn a Himnenum, og (a) Orion, og Siøstyrned, og Stiørnurnar jmoot Sudrenu.

(a) (Orion) er su biarta Stiarna j Sudur, sem menn kalla Jacobs Staf.

10. Hann giører mikla Hlute og Orannsakanlega, og Oteliannlegar Daadsemder.

11. Siaa þu, hann geingur framm yfer mig fyrr enn eg verd þess vijs, og umskipter sier fyrr enn eg formerke þad.

12. Siaa þu, nær ed hann lijdur skyndelega j burt, Hvør fær sookt hann aptur? Hvør vill seigia til hans, Hvad hefst þu ad?

13. Hann er GUd, Eingenn kann ad stilla hans Reide, hiner * stolltu Herrarner hlioota ad lwta under hann.

(b) (Stolltu) þeir stolltu Jungherrar, þeir ed treysta uppa sijna Magt, og hvørium Manne gieta hiaalpad.

14. Hvørnenn skyllda eg þa svara hønum, edur finna Ord a moote hønum?

15. Eirnenn þo eg hefda Riett, þa kann eg þo ecke helldur hønum Svar ad giefa, utann eg hlyt ad bidia um Naad.

16. Enn þo eg kallade til hans, og hann heyrde, þa trwe eg þo ecke, ad hann heyre mijna Raust.

17. Þviad hann fer yfer mig med Stormvidre, og veiter mier marga aakomu fyrer Sakleyse.

18. Hann lætur minn Anda ei vidurkveikia sig, helldur uppfyller hann mig af Harmkvælum.

19. Vilie Madur Megt, þa er hann ofmegtugur, vilie Mann Riettinn, hvør vill vera minn Vitnismadur?

20. Seige eg þad, ad eg sie Riettvijs, þa fordæmer hann mig þo samt, sie eg Meinlaus, þa giører hann mig þo sakadann.

21. Sie eg Riettlaatur, þa þorer þo mijn Saala ecke ad taka sier þad til, Eg hirde ecke ad lifa leingur.

22. Þad er þad eina sem eg hefe sagt, Hann fyrerfer bæde Goodum og Ogudlegum.

23. Nær ed hann tekur til ad hwdstrykia, þa þreyngier hann jafnsnart framm til Daudans, og hlær ad Freistingum hinna Meinlausu.

24. Enn Landed verdur giefed j Hendur þeirra Ogudlegu, so ad hann nidurþricke þeirra Domendur, er þad eige so, hvornenn skyllde þad ødruvijse vera?

25. Mijner Dagar hafa vered fliootare enn nockur Hlaupare, þeir eru j burt flwner, og hafa eckert gott lifad.

26. Þeir eru forgeingner, lijka sem þau sterku Skipenn, lijka sem þad Ørnenn burt flygur til Braada.

27. Nær eg þeinke, ad eg vilie gleyma mine Kløgun, og laata mijna Burde burt fara, og endurlijfga mig.

28. Þa kvijde eg samt vid øllu mijnu (c) Kvalræde, af þvi ad eg veit þad, ad þu lætur mig ecke vera Saklausann.

(c) Hvort þad mun ei koma aptur.

29. Ef eg er nu ogudlegur, hvar fyrer lijd eg þa þessa Plaagu til forgiefens.

30. Þo ad eg þvæe mig upp j Sniovatne, og hreinar giørde mijnar Hendur j Brunnenum,

31. Þa dyfer þu mier þo midt nidur j Saurenn, og mijn (d) Føt munu þa fara mier svijvirdelega.

(d) (Føt) þad er, Mijner Koster og Manndygder.

32. Þviad hann er ecke minn Lijke, þeim eg mætte svara, so vier kiæmum saman fyrer Domenn.

33. Þar er eingenn sa Madur ockur kunne skilia, eige helldur sa sem kann ad leggia sijna Hønd a millum ockar beggia.

34. Hann take sinn Vønd af mier, og burt laate fra mier sijna Ognan.

35. So ad eg mége tala, og þurfe ecke ad hrædast fyrer honum, ellegar kann eg ecke fyrer mig nockud ad giøra.

# X. Capitule.

Job klagar yfer sinne storkostlegu Eymd og Kvøl, fyrer Gude.

Minne Saal leidist mitt Lijf, Eg vil laata mitt Kvein frammlijda hiaa mier, og tala um Harmkvæle minnar Saalar,

2. Og seigia til Guds, Fordæm mig ecke, Laat þu mig vita hvar fyrer þu þraattar vid mig.

3. Lijkar þier þad, ad þu giører Ofurvalld, og j burt kastar mier? þeim sem þijnar Hendur hafa skapad, og giøra so Raaded hinna Ogudlegu til Vegsemdar?

4. Hvort hefur þu eirnenn Lijkamleg Augu? Eda sier þu so sem Madurenn sier?

5. Eda er þijn Tijd so sem Mannsins Tijd? Eda þijn aar so sem Mannsins aar?

6. Ad þu spyrier epter mijnum Misgiørninge, og leiter epter mijnum Syndum?

7. Þar þu veitst þo, ad eg er ecke ogudlegur, þar þo eingenn er sem kunne ad frelsa af þinne Hende.

8. Þijnar Hendur hafa smijdad mig, og giort þad alltsaman hvad eg er (a) allt umkring, og þu nidursøckur mier so med øllu.

(a) (Allt umkring) Eckert er a mier þad þu hefur ecke skapad, eda sem ecke er þitt. Og þo kastar þu mier burt, so sem ad hefde annar skapad mig, Ø-fundar Madur eda Ovinur þinn, so hefur þuølldungis øngva umhyggiu fyrer þvi sem þitt er.

9. Minnstu þo þess, ad þu giørder mig af Jardar leire, og þad, ad þu munt giøra mig aptur ad Jørdu.

10. Hefur þu ecke miolkad mig sem adra Miolk, og hleypt mier tilsamans sem ødrum Oste?

11. Þu jklædder mig med Hollde og Hørunde, og med Beinum og Sinum samsetter mig.

12. Lijfed og margt Gott gafstu mier, og þijn Umsioon vardveitte minn (b) Andardraatt.

(b) (Andardraatt) Pad er Lijfed, til hvörs ad Andardraatturenn seiger.

13. Enn þo ad þu hylier slijkt j Hiarta þijnu, þa veit eg þo þu hugsar pad.

14. Nær eg syndgast, þa formerker þu þad jafnsnart, og lætur mijna Synd ecke ostraffada.

15. Sie eg Ogudlegur, so er mier þa Vei, sie eg Riettferdugur, þa þore eg ecke ad upplypta mijnu Hofde, eg sem er fullur af Forsmaan, og sie mijna Eymdar vesolld.

16. Og lijka sem annad oruggt Leon, þa jagar þu mig, og handtierar so hrædelega aptur vid mig.

17. Þu endurnyar þijn Vitne a moote mier, og margfalldar þijna Reide j giegn mier, Hvor Plaagann kiemur epter adra samfleytt.

18. Hvar fyrer lietstu mig koma af Modurkvide? Oho! hefda eg fyrerfarest, og ad alldrei hefde neitt Auga mig sied.

19. Pa væra eg sem þeir alldrei voru neiner, og j burt fluttur fra minnar Modur Kvide til Grafarennar.

20. Skulu mijner Lijfsdagar stutter ecke foa enda? og mig fara laata, ad eg yrda so nockud lijted endurnærdur?

21. Fyrr enn ad eg fære j burt, og kome ei aptur, sem er j Land Mirkursins og Dimmunnar.

22. J þad Landed sem er þad þickva Mirkred, og þar eingenn Skipan er a, þar ed þad skijn so sem Dimma.

# XI. Capitule.

Zophar talar til Jobs.

Pa svarade Zophar af Naema, og sagde.

2. Nær ed eirn hefur leinge talad, maa hann þa ecke aflaata? skal og maalugur Madur alltijd riett hafa?

3. Skulu Menn þeigia fyrer þinnar margmælge saker, ad þu spottar, og eingenn giorer þier Kinnroda?

4. Þu seiger, Mitt Mool þad er hreinferdugt, og eg em hreinn j-þijnu Auglite.

5. Oho! ad Gud villde tala vid þig, og uppluka sijnum Vorum.

6. Og kunngiora þier þann Heimuglega Vijsdoom, Hviad hann hefde vel meira ad höndla vid þig, so ad þu mætter formerkia, ad hann minnest ecke a allar þijnar Misgiorder.

7. Meinar þu, ad þu muner vita so miked sem Gud veit, og þad, ad þu muner so fullkomlegana hitta uppa alla Hlute, sem sa hinn Allmaattuge?

8. Hann er hærre enn Himenenn, hvad villt þu giora? Diwpare enn Helvijted, hvad kannt þu ad vita?

9. Leingre er hann enn Jardrijked, og breidare enn Hafid.

10. Po ad hann um vellte, edur nidurbyrgde, edur þeim j eirn Hoop til saman kaste, hvor vill varna hönum þess?

11. Pvi hann þecker vel þa Hiegooma Menn, Hann sier vel þa Odygd, og skyllde hann ecke giæta ad þvi?

12. Enn Faafeingur Madur blæs sig upp, og ein fædd Manneskia vill vera sem annad ungt Villudyr.

13. Hefder þu tilbued þitt Hiarta, og utbreidt þijnar Hendur til hans,

14. Hefder þu laated þitt Raanglæte, sem er j þinne Hende, langt fra þier, so ad eingenn Oriettinde være j þijnu Heimile,

15. Pa mætter þu upphefia þitt Andlit ostraffanlega, og vera oruggur, enn ecke ottablandenn.

16. Pa munder þu gleyma Armædunne og minnast so lijtt a hana, so sem a Vatned er framm hiaa rennur.

17. Og Tijmenn þinna Lijfsdaga munde upprenna sem Haadeiged, og Mirkred munde verda sem lioos Morgun.

18. Og mætter þu hugsvala þier med þvi, ad þad være Von fyrer Hondum, og kynnet so med Hvijld j Grofina ad komast.

19. Og þu munder leggia þig, og eingenn munde þig a Fætur fæla, og marger mundu þa bidia fyrer þier.

20. Enn Augun hinna ogudlegu þau munu veikare verda, og munu ei umflued gieta, Þviad a þeirra Von þa skal Saalu þeirra Brestur verda.

## XII. Capitule.

Job svarar Zophar og hans Rædu.

Job svarade þa, og sagde.

2. Jaa, þier erud þeir Menn, med ydur mun Vijsdomurenn deya.

3. Eg hef og vel eitt Hiarta sem þier, og er ecke minne hvattar enn þier, og hvor er sa sem ecke veit slijkt?

4. Hvor hann verdur spottadur af sijnum Naunga, sa same mun aakalla Gud, og hann mun heyra hann, Sa hinn Riettvijse og hinn Frome hlytur Daaruskap ad lijda.

5. Og þar er eitt fyrerlited Liosskorn fyrer Þønkunum hins Ríkra, og bvoed til Falls.

6. Eydeleggiaranna Heimile þau hafa Nægd, og þeir æda diarflegana moote Gude, enn þo Gud hafe giefid þeim þad j þeirra Hendur.

7. Friettu Kvikfied ad, og mun þad kienna þier þad, og Fuglarner Himensins munu seigia þier þad.

8. Edur tala þu vid Jordena, og mun hun kienna þier þad, og Fiskarner j Sioonum munu frammtelia þier þad.

9. Hvor er sa ad eige vite allt þad, ad Hond DROTTins hafde giort þetta?

10. So þad j hans Hende eru allra þeirra Saaler sem lifa, og Andenn alls Holds hvors fyrer sig.

11. Profar ecke Eyrad Ordræduna? Og Munnurenn smackar Matenn?

12. Jaa, j hiaa þeim Forfedrunum er (a) Vijsdomurenn, og hiaa þeim Gomlu Skilningurenn.

(a) (Vijsdomur) Þier seiged Vitskaun sie hiaa Forfedrunum, Enn eg seige hun sie hiaa Gude, Hvor alleina alla Konga, Presta, Doomara, Magt, Lijf, Dyrd, ad ongvu giører.

13. Hiaa honum er Vitskann og Valldød, Raad og Skilningur.

14. Sioa þu, nær ed hann j sundur brytur þa hiaalpar þar eingenn Uppbigging, nær ed hann innelykur nockurn þa er þar eingenn sem upplykur.

15. Sioa, Nær ed hann jnne stemmer Vatned þa verda aller hluter þurrer, og nær ed hann slepper þvi ut þa rootar þad upp Landenu.

16. Hann er Øflugur, og fær þad giort, Hans er bæde sa sem villt fer, og hinn sa sem viller.

17. Hann leider þa enu Klooku sem eitt Herfaang, og gierer Doomarana Heimskufulla.

18. Hann uppleyser Þreynging Konunganna, Og med Belltenu umgyrder hann þeirra Lendar.

19. Hann leider Prestana sem annad Herfaang, Og hann lætur þad bregdast þeim sterku.

20. Hann j burt snyr Vorum Sannmaalugra, og hann j burt tekur Sidvenjur hinna Gomlu.

21. Hann utheller Smaan yfer Hofdingiana, og lausann gierer Staattmaalann þeirra Vollduga.

22. Hann opnar Underdiupenn Mirkranna, og utleider þad Mirkva til Liossens.

23. Hann giorde suma hvoria ad mikelshvattar Monnum, og glatar þeim aptur, Hann utbreider eitt Folk, og rekur þad til samans aptur.

24. Hann burt tekur Hugdirfd Hofdingianna Folksins j Landenu, og lætur þa villast a Oveigenum, þar eingenn Vegur er.

25. So ad þeir þan Liossens falma j Mirkre-

Mirkrenu, og hann giører þad ad þeir fara viller Vega, sem adrer Dryckiu Menn.

## XIII. Capitule.

Job svarar Zophar framveges, og hans Fortølum.

Sioa þu, þetta hefur mitt Auga allt sied, og mitt Eyra hefur þad heyrt, og eg hef þad understaded.

2. Hvad þier vited þad veit eg og so, og eg er ecke minne hoattar enn þier.

3. Þo villda eg giarnann mæla vid hinn Almoattuga, og eg villda giarnann ganga j Riett vid Gud.

4. Þviad þier legged þad falsklega ut, og erud aller onyter Læknarar.

5. Giæfe þad Gud þier villdud þeigia, þa yrdud þier vijser.

6. Heyred þo mitt straff, og hygged ad þvi Moalefne sem eg tala um.

7. Vilied þier forsvara Gud med raungu, og ad syna slægsmune fyrer hann?

8. Vilied þier oalijta hans Personu? Eda vilied þier kieppa vegna Guds?

9. Mun ydur þad vel veita, nær ed hann skal dæma ydur? Meined þier þad, ad þier foaed bleckt hann, lijka sem þa eirn Madur blecker annann Mann?

10. Hann mun straffa ydur, ef ad þier hafed Manngreinar oalit heimuglega.

11. Mun hann ecke skielfa ydur, þa nær ed hann brunar þar framm? og hans Skielfing mun falla yfer ydur?

12. Endurminningenn ydar mun samlijkiast vid Øskuna, og ydrer Hrigger munu vera sem onnur Leyr Rwost.

13. Þeiged fyrer mier, so eg giete talad, þad skal mig ecke bresta.

14. Hvar fyrer skal eg (a) naga mitt Holld med sioalfs mijns Tonnum, eda leggia mijna Soal j mijnar Hendur?

(a) (Naga) þad er, Þvi skal eg kvelia mig og þvinga, first ad eg hlyt ad deya, og þad hioalpar mier ecke par. Item, Mijna Soal j mijnar Hendur ad leggia, er ad leggia miked j Hættuna, og voga mikid.

15. Sioa þu, Hann mun þo deyda mig, og eg kann ecke ad bijda. Þo vil eg straffa mijna Vegu fyrer honum.

16. Hann mun og minn Hioalpare vera, þviad eingenn Hræsnare kiemur fyrer hann.

17. Heyred þier mitt Moal, og mijna Utlegging fyrer ydar Eyrum.

18. Sioa þu, eg hefe allareidu Doms Atkvæded a lagt, Eg veit ad eg verd Riettloatur.

19. Hvør er sa ed þreyta vill vid mig? Enn nu hlyt eg ad þegia og fordiarfast.

20. Tvo hlute gior þu mier ecke, þa vil eg ecke dylia mig fyrer þier.

21. Loat þijna Hønd vera langt j burt fra mier, og þijna Skielfing ecke skielfa mig.

22. Kalla þu til mijn, eg vil svara þier, Ellegar eg vil tala, svara þu mier.

23. Hvørsu margar eru mijnar Misgiørder og Synder? Loat mig vita mijnar Illgiorder og Synder.

24. Hvar fyrer byrger þu þitt Andlit, og helldur mig fyrer þinn Ovin?

25. Villt þu vera so alvørusamur vid eitt fliugande Laufblad, og ofsækia eitt þurt Hoalmstroa?

26. Þviad þu skrifar Harmkvælingarnar a moote mier, og villt fyrerkoma mier so, fyrer Synda saker minnar Ungdoms Æsku.

27. Þu hefur sett mijnar Fætur j Stock, og giætt ad ollum mijnum Stigum, og hugad ad mijnum Fotsporum.

28. Eg sem þo forgeing lijka sem annad vollded Hræ, og so sem annad Klæde þad Molurenn uppetur.

## XIV. Capitule.

Job talar um Eymd og Kvalræde Mannlegrar Æfe.

Madurenn af Kvinnunne fæddur lifer stutta stund, og er fullur Onoadar.

2. Hann uppvex sem annad Bloomstur,

og fellur af, og j burtu flyr sem annar Skug-
ge, og er ecke j sama stad.
3. Og þu upplætur þijn Augu yfer eitn
þvijlijkann, ad þu drager mig j Dom fyrer
þig?
4. Hvor vill finna Hreinann hioa þeim þar
Eingenn er hreinn?
5. Hann hefur sinn tilsettann Tijma,
hans Moanada Tala er hioa þier, Þu hefur
sett eitt Takmark, yfer þad kiemst hann ecke.
6. Vijk þu froa honum, so ad hann mei-
ge hafa hvijld, þangad til ad hans Tijme
kiemur, epter hvorium hann bijdur sem an-
nar Daglauna Madur.
7. Eitt Trie þad vonar, þo þad sie upp-
hoggved, ad þad endurnyest aptur, og þess
Kvister loata ei af.
8. Þo ad Rootenn fyrnest j Jordunne, og
þo ad Stofnenn deye nidur j Dupte,
9. Þa blomgast þad þo aptur, vot af
Vatnsins Lyckt, og vex upp, lijka sem være
þad plantad.
10. Enn hvar er Madurenn, nær ed hann
er daudur, og fallenn, og j burtu?
11. Lijka sem Vatned upphleypur af Sio-
num, og so sem onnur Vatns roas hvor ed
j burtu sijast og uppþurkast.
12. Eins Lijka þa er Madurenn, nær ed
hann leggur sig, og mun ei standa upp, og
ei vakna upp aptur, so leinge sem þad Himen-
nenn blijfur, og uppvaknar ecke af sijnum
Svefne.
13. Oh ad þu hefder huled mig j Helvijte,
og skylt þangad til ad þijn Reide rienade af,
og sett mier eitt Takmark til, ad þu villder
minnast mijn.
14. Þeinker þu, ad Daudur Madur mune
lifna aptur? Eg vænte daglegana, a medan
eg strijde, þangad til ad mijn Umskipting
kiemur.
15. Ad þu villder kalla a mig, og eg
mætte svara þier, og ad þu villder ecke j burt
kasta Verkenu þinna Handa.
16. Þvi þu hefur allt tilreidu taled mijna
Gaungu, enn eg villda giarnan ad þu giæ-
fer ecke giætur ad mijnum Syndum.
17. Þu hefur innsiglad mijna Yfertrodslu
j einu Bindene, og mijnar Synder tilsa-
mans bunded.
18. Ef ad Fialled hrapar nidur og for-
geingur, og eitt Hellubiarg kann flytiast j
burt wr sijnum Stad.
19. Vatned þvær Steinana j burt, og
Droparner skola Jordunne j burt, enn
Mannsins (a) Von er glotud.

(a) (Von) þad er, Hann hefur ongva Von, ad hann kunne Daudann ad umflya j þessu Lijfe.

20. Þviad þu kollkastar honum med ol-
lu, so ad hann fer hiedann, þu umbreiter
hans Veru, og lætur hann fara.
21. Eru hans Born j Heidre, þad veit
hann ecke, ellegar ad sieu þau lijtilmootleg,
þa verdur hann þess ei oaskinia.
22. So leinge sem hann ber Kiot a sier
þa hlytur hann Pijnu ad lijda, og so leinge
sem þad hans Soal er med honum þa
hlytur hann Sorg ad bera.

## XV. Capitule.

*Eliphas talar i annad Sinn til Jobs.*

Þa svarade Eliphas af Theman, og sagde.
2. Skal eitn Vijs Madur tala so upp-
bloasinn Ord, og fylla sinn Kvid so upp af
foanytre Rædu?
3. Þu straffar med Ordum þeim sem ecke
kvedur ad, og þijn Ordræda er ecke nyt-
samleg.
4. Þu lætur Ottann fara, og talar for-
smoanarlega fyrer Gude.
5. Þviad þitt Roanglæte kienner þijnum
Munne so, og þu hefur kiored þier eitna
hreckvijsa Tungu.
6. Þinn Munnur mun fordæma þig enn
ecke eg, þijnar Varer munu giefa þier Svar.
7. Hvort ert þu sa Madur sem Firstur er
fæddur? Ert þu sa er gietenn er adur enn
oll Fiollenn voru?

8. Hefur þu heyrt Guds heimuglegt Road? Og er sioalf Spekenn minne hoattar enn þu?
9. Hvad veitst þu þad ad vier vitum ecke? Hvad skilur þu þad ad ecke sie hioa oss?
10. Par eru bæde Groahærder og Gamler a medal vor, sem enn leingur hafa lifad enn þijner Forfedur.
11. Skyllde Guds Hugsvalan so allijted gillda fyrer þier? Enn þu hefur enn einhvorstadar nockud leynilegt hioa þier.

(a) (Allijted) Meinar þu, ad GUd hugge þa syndugu? Og ad hann burt kaste so sijnum Huggunum, þu hlytur oadur fyrr riettlaatur verda.

12. Hvad oesetur Hiarta þitt sier? Þvi sier þu so hofmoodugt vt?
13. Þvi setur þitt Sinne sig a mote Gude, ad þu lætur soddan Ordbragd frammganga af þijnum Munne?
14. Hvad er Madurenn þess, ad hann skyllde vera Hreinn, og ad sa skyllde vera Riettferdugur sem er af Kvinnunne fæddur?
15. Sioa þu, ad þar er eingenn Ostraffanlegur a medal hans Heilagra, og Himnarner eru ecke hreiner fyrer honum.
16. Hvorsu miklu sijdur mun þa Madurenn sem so andstyggelegur er og foafeingur, hvor jnndreckur Roanglæted so sem annad Vatn?
17. Eg vil syna þier þad, hlyd þu mier ad, og eg vil frammtelia þier þad, hvad eg hefe sied.
18. Hvad hiner Vijsu hafa sagt, Og þad var ecke folged fyrer þeirra Forfedrum.
19. Þeim, hvorium alleina ad Landed er giefed, so ad eingenn framande moa ganga þar j giegnum.
20. Hinn Ogudlege bifast um alla sijna Daga, og Tyrønnonum er þeirra oaratala Hulenn.
21. Hvad hann heyrer þad skielfer hann, og enn þo ad þad sie fridsamlegt, þa hræddest hann þo Fordiarfarans komu.
22. Hann trwer þvi ecke ad hann mune gieta flwed Ogiæfuna, og ætijd vænter hann Sverdsins.
23. Hann fer hingad og þangad epter Braude, og honum þyker jafnan, ad hans Ogiæfustund sie fyrer Hondum.
24. Angist og Anaud skielfer hann, og nidurslær honum, lijka sem annar Kongur med Herlide.
25. Af þvi, ad hann hefur vtriett sijna Hond a moote Gude, og teked sig upp a moote þeim Almoattuga.
26. Hann hleypur med Hofdenu a moote honum, og strijder j giegn honum, med hardsvijrudum Hnacka.
27. Hann vtbyr sig sem annar Ystrumage, og giører sig feitann og þickvann.
28. Enn hann mun bwa j foreyddum Stodum, sem eingenn Hws eru, helldur liggia j eirnre Hrwgu.
29. Hann mun og ecke Audugur verda, og hans Gots mun ecke stadfast vera, og hans Lucka mun ecke vtbreida sig j Landenu.
30. Ogiæfann mun ecke linna af honum, Logenn mun uppþurka hans Kvistu, og uppsvelgia þa med Anda sijns Munns.
31. Hann fær ei stadest, þvi hann er svikenn j sialfs sijns Hiegooma, og Hiegomenn mun verda hans Verdkaup.
32. Hann mun þa foa Enda ed honum verst gegner, og hans Kvister munu ecke bloomgast.
33. Hann mun burt plockadur verda sem annad Vised Ber af Vijntrienu, og lijka sem Oliutrie af sier feller sitt Bloomstur.
34. Þviad Hræsnarans Samansafnan mun einmana blijfa, og Elldurenn mun foreyda þeirra Hwsum sem Mwtur þiggia.
35. Hann geingur þungadur med Ogiæfuna, og fæder Armæduna, og þeirra Bwkur ber Svik.

## XVI. Capitule.

Job talar til sinna Vina.

Job svarade, og sagde,
2. Optsinnis hefe eg nu heyrt sod-

dann. Aller saman erud þier Leidenleger Huggarar.

3. Skulu þau onytiu Ord ongvann Enda hafa? Eda hvornenn dirfest þu so ad tala?

4. Eg kunne og eirnenn so vel ad tala sem þier, Villde GUd þad, ad ydar Saaler være j Stad minnar Saalar. Eg villda þa og eirnenn setia mig a moote ydur med Ordum, og hrista so mitt Hofud yfer ydur.

5. Eg villda stirkia ydur med Munnenum, og hugsvala med mijnum Vorum.

6. Enn þo ad eg tale, þa væger mier ecke þo mijn Pijna, enn legge eg þar ecke til, þa fer hun þo eige j burtu fra mier.

7. Enn nu giorer hann mig þreyttann, og nidurbrytur allt þad eg er.

8. Hann hefur giort mig hruckottann, og (a) vitnad a moote mier.

(a) (Vitnad) Þetta er ydar Hiaalp jmoote mier.

9. Og minn Mootmælare upphefur sig j giegn mier, og veiter mier Mootmæle: Hans Grimmd jsundurslijtur, og hann sem mier er reidur bijtur Tonnum tilsamans yfer mier, minn Mootstodu Madur hvesser sijn Augu a mig.

10. Þeir hafa uppsperrt sijna Munna a moote mier, og sloou mig hæduglega a mijn Kinnarbein, og skeyttu so Skape sijnu tilsamans a mier.

11. GUd hann gaf mig under hinn Raanglaata, og liet mig koma j Ogudlegra Hendur.

12. Eg var rijkur, enn hann hefur giort mig ad ongvo, Hann took um Haals mier, og jsundur malde mig, og sette mig til eins Maals-Teikns.

13. Hann umkringde mig med sijnum Skeytum, Hann hefur j sundursnided mijn Nijru, og vægde ecke, Hann hefur wthellt mijnu Galle a Jordena.

14. Hann veitte mier hvert Saar af odru, og hann hlioop a mig sem annar Kappe.

15. Eg saumade eirn Seck yfer mijna Hwd, og lagde mitt (b) Horn j Molldarduft.

(b) (Horn) Mijna Magt, Stirk, Valld, og annad hvar a eg treysta.

16. Mitt Andlit er boolged af Graate, og mijnar Augnabraar eru formirkvadar.

17. Eirnenn þo þar sie eckert Raanglæte j mijnum Hondum, og mijn Bæn er hrein.

18. Og þu Jord! hyl ecke mitt Blood, og mitt Kall mun ongvann Stad finna.

19. Sioa þu þad, Minn Vottur er a Himne, og sa er mig þeckir er j Upphædunum.

20. Mijner Viner eru mijner Haadungarmenn, enn mitt Auga þad taarfeller til Guds.

21. Kynne Madurenn ad þreyta Log vid GUd, sem annar Mannsins Ridie vid sinn Vin.

22. Enn þau Arvednu aarenn eru komenn, og eg fer j burt þann Veg hvorn eg kiem eige aptur.

## XVII. Capitule.

Job talar um sijna Eymd, Kvol, og Sakleyse.

Minn Ande er vanmegna, og mijner Dagar eru styttre ordner, Grøfinn er þar.

2. Eingenn er af mier tældur, þo hlioota mijn Augu þar fyrer j Sorgum ad blijfa.

3. Villder þu enn hafa Borgan af mier? Hvor vill lofa fyrer mig?

4. Þu hefur faled Skilningenn fyrer þeirra Hiortum, þar fyrer munt þu ecke upphefia þa.

5. Hann hroosar wt af Herfaangenu, fyrer sijnum Vinum, enn Augun hans Barna munu vanmegnast.

6. Hann hefur sett mig til eins Maaltækis a medal Folksins, og eg hlyt so ad verda ad Undran a medal þeirra.

7. Minn Yferlitur er dockur ordenn af Hormum, og aller mijner Limer eru sem annar Skugge.

8. Hvad hina Riettferdugu mun undra, og hiner Meinlausu munu setia sig a moote Hræsnaranum. 9. Hinn

9. Hinn Riettlaate mun bijhallda sijnum Vege, og hann sem hefur hreinferdugar Hendur mun blijfa oflugur.

10. Nu vel, af þvi þa snwed ydur hingad, og komed, eg finn þo ongvann hyggenn a medal ydar.

11. Mijner Dagar eru umlidner, mijner Asetningar eru adskilder, þeir umsaatu mitt Hiarta.

12. Og hafa giort Dagenn af Nottenne, og Nottena af Deigenum.

13. Þo eg bidleike enn leingur vid, þa er þo Helvijted mitt Hws, og mijn Sæng er Uppbuenn j Myrkrenu.

14. Fwann kallade eg minn Fodur, og Madkana Modur mijna, og mijna Systur.

15. Epter hvoriu a eg ad bijda? Og hvor hirder um mijna Von?

16. Þad mun hiedan under fara j Helvijted, og mun medur mier liggia j Molldarduptenu.

# XVIII. Capitule.

Bildad talar annad Sinn til Jobs.

Þa svarade Bildad af Suah, og sagde.

2. Hvonær vilied þier giora eirn enda a Rædunne? Giæted þo ad, sijdan vilium vier tala.

3. Hvar fyrer verdum vier aktader sem annar Fienadur, og erum so sauruger fyrer ydar Augum.

4. Hvort villt þu sprijnga af Illskunne? Hugsar þu ad Jordenn mune yfergiefast fyrer þijnar saker, og ad Fiollenn mune (a) flytiast ur sijnum stad?

(a) (Flytiast) Gud mun ecke giora odruvijs vid þig enn alla adra, og ecke mun hann breita sijnum Vana fyrer þijna Skulld.

5. Lioosed hins Ogudhrædda mun utslockna, og Neistenn hans Ellds mun ecke lysa.

6. Lioosed mun formirkvast j hans Tialldbwd, og hans Lioos mun utslockna yfer honum.

7. Groode hans Peninga mun klien verda, og hans asetningur mun bregdast honum.

8. Þviad hann er med sijnum Footum innfærdur j Snoruna, og geingur j Netenu.

9. Snarann mun ad hans Hælum hallda, og þeir hinu þyrstu munu grijpa hann.

10. Hans Snara er logd j Jordena, og hans Gilldra a hans Farveige.

11. Skyndeleg Hrædsla mun skielfa hann allt umhverfis, so hann mun ei vita hvad hann skal afraada.

12. Hungred mun vera hans Eign, og Ogiæfann mun honum reidubwenn vera, og loda vid hann.

13. Stirkur hans Hwdar mun eydast, og sa (b) Daudans Hofdinge mun fortæra hans Stirkleika.

(b) Þad er Magt Daudans og Valld.

14. Hans Von mun upprætt verda af hans Tialldbwd, og þeir munu j burt drijfa hann til þess Konungsins Skielfingarennar?

15. J hans Hybylum mun ecke neitt epter vera, og ut yfer hans Tialldbwd mun Brennesteine dreift vera.

16. Hans Rætur munu upp þorna nedan til, og ofan til þa mun hans Haustvinna j burtskieraft.

17. Hans Minning mun forganga j Landenu, Hann mun og ecke neitt Nafn hafa a Strætunum.

18. Hann mun burt rekenn verda fra Lioosenu j Myrkred, og utskufadur af Jordunne.

19. Hann mun hvorke hafa Born nie Barna Born a medal sijns Folks, Og þar mun eingenn epter verda j hans Heimele.

20. Þeir ed epter hann koma þeim mun oogna hans Dagur, og yfer þa sem fyrer honum eru mun koma eirn Otte.

21. Þetta er þad Heimeled hins Oriettferduga, og þetta er Stadur þess sem ecke skeyter um Gud.

## XIX. Capitule.

Job Hughreyster sig j sinne Kvøl vid Messias.

Job svarade og sagde.
2. Hvi þvijnged þier þo so mijna Saalu, og kvelied mig med Ordum?
3. Þier hafed nu Tijusinum hædt mig, og þier skammest ydar ecke, ad þier so um kring reked mig.
4. Fare eg villt, þa villest eg mier.
5. Enn þier upphefied ydur sannlega a moote mier, og straffed mig mier til Hææðungar.
6. Hyggeð ad einu, ad Gud hann giører mier oriett, og umvefur mig med sinne Veidesnoru.
7. Sioa þu, þo ad eg hroopade fyrer Ofrijkes saker, þa yrda eg þo ecke bænheyrdur, Eg kalla, og þar er eingenn Riettur.
8. Hann hefur gyrdt fyrer mijna Vegu, ad eg kann ecke yfer ad komast, og hann hefur sett Myrkred a mijna Stigu,
9. Hann hefur fært mig ur mijnum (a) Heidre, og Koronuna took hann af mijnu Hofde.

(a) Þad er allt rædt um Gagn stundlegs Lijfs j Fride og Farsælld.

10. Hann sundurlamde mig allt umhverfes, og liet mig fara, Og hann upprickte minne Von sem ødru Trie.
11. Hans Reide er grimmleg yfer mier, og hann helldur mig fyrer sinn Ovin.
12. Hans Strijdsmenn komu under eins, og giørdu sier Stein-Gøtu yfer um mig, og settu sijnar Herbuder kring um mijna Tialldbwd.
13. Hann skilde mijna Brædur langt fra mier, og mijner Kunningiar eru ordner mier okienndér.
14. Mijner Naaungar eru vikner j burtu, og mijner Viner þeir forgleymdu mier.
15. Mitt Heimelis Foolk og mijnar Pernur hallda mig sem annann framanda Mann, Eg em ordenn okienndur fyrer þeirra Augum.
16. Eg kalla a minn Þionustu Mann, og hann svarar mier øngvu, Eg hlaut ad grátbæna hann med mijnum eigenn Munne.
17. Mijn Husfreya hun lietst vera okiennd þa eg kallade hana, Og eg hlyt ad bidia þau Bornenn sem af mijnum sialfs Kvide eru komenn.
18. Og þau ungu Bornenn skeyta ecke um mig, Nær ad eg set mig a moote þeim, þa jllyrda þau mig.
19. Aller mijner Fulltruar høfdu Vidbiood vid mier, Og þa hvøria eg elskade, þeir hafa snwed sier a moote mier.
20. Mijn Bein hanga vid mijna Hwd og Holld, og eg fæ ecke huled mijnar Tennur med Hwdenne.
21. Aumked ydur yfer mig, aumked ydur yfer mig, Viner mijner! Þviad Guds Hond hefur snorted mig.
22. Hvi ofsæked þier mig, so vel sem Gud, og kunned ecke ad (b) sediast af mijnu Kiote.

(b) (Sediast) þad er, Þier kunned ecke af ad læta, ad bijta mig og straffa.

23. Oho! eg æske þad mitt Maal mætte vera uppskrifad, Oho! ad þad kynne ad setiast j eina Book,
24. Med einum Jarnstijl a Blij, og uthoggvast a Stein til Eylijfrar Minningar.
25. Enn eg veit ad Minn (c) Endurlausnare lifer, og þad hann mun hier epter uppvekia mig af Jordunne.

(c) (Endurlausnare) Sa sem Hialpar og hefner, þvi Christus hefner vor a vorum Maudrææpara og Mordingia Dioflenum.

26. Og eg mun sijdar meir umgiefast med þessu mijnu Horunde, og eg mun sioa Gud j mijnu Hollde.
27. Þann hinn sama mun eg sioa fyrer mig, og mijn Augu munu lyta hann, og ecke eirn annarlegur. Mijn Nijru eru fortærd j mijnu Skaute.
28. Þviad þier seiged, Hvornenn helldst vilium vier ofsækia hann, og finna honum Sok?
29. Vered hrædder fyrer Sverdenu, þviad

þviad Sverded er Reidenn yfer Misgiorningum, So ad þier meiged vita, ad þar sie Doomurenn til.

## XX. Capitule.

Zophar talar j annad Siun vid Job.

Pa svarade Zophar af Naema, og sagde.
2. Eg hlyt þar til ad svara, og kann ecke ad bijda vid.
3. So vil eg og giarnan heyra hvor mig skal straffa, og seigia þar a moot, Pviad Ande mijns Skilnings skal svara fyrer mig.
4. Veitst þu ecke, ad þad hefur so alla Tijma til geinged, so leinge sem Menn hafa vered a Jordunne.
5. Pad Frægdenn hins Ogudlega stendur ecke leinge, og þad Hræsnarans Gladlæte varer eitt Augabragd.
6. Og þo ad hans Hæd take allt upp j Himenenn, og hans Hofud þad kiæme vid Skijenn,
7. Pa fyrerferst hann þo ad sijdurstu sem annar Preckur, So ad þeir, af hvorium hann var oalitenn, munu seigia, Hvar er hann?
8. Lijka sem annar Draumur j burt lijdur, so skal hann og ecke fundenn verda, Og lijka sem onnur Sioon a Noattar Tijma j burthverfur.
9. Pad Auga sem sied hefur hann þad skal ecke sioa hann leingur, Og hans Stadur skal ecke lijta hann leingur.
10. Hans Born munu fara yfer og Olmusu þiggia, Og hans Hond mun giefa honum Armædu til þionustu launa.
11. Hans Bein munu giallda hans heimulegra Synda, og þau munu j Jordena leggia sig med honum.
12. Enn þo ad honum smackest vel hans Illska j sijnum Munne, þa mun honum þo j sinne Tungu (a) Brestur a henne verda.

(a) (Brestur) Þegar hann upp byriar hid vonda, hefur hann þar lysting af og Roo, Enn þad varer Ecke leinge, þad verdur snart beiskt j Munne.

13. Hun mun aptur halldast, og honum eige leyfast, og mun honum vornud verda j hans Hoalse.
14. Hans Matur mun umsnwast, hid jnnra j Kvidnum, j Nodrugall.
15. Pad Gots hann hefur j sig gleypt þvi mun hann vt spya aptur, og Gud mun vtsteyta þad vr hans Kvide.
16. Hann mun (b) siwga Nodrunnar Gall, Og Hoggormsins Tunga mun drepa hann.

(b) (Siuga) þad er, Hann mun Daudlega Hiartans Sorg og Hormung lijda, og ollu goodu sviptur verda.

17. Hann mun ecke sioa þau Fliootenn nie þa Vatnslækena, sem frammfliota med Smiore og Hunoange.
18. Hann mun erfida og niota þess ecke, Og adrer skulu eignast hans Audæfe, so ad hann glediest ecke þar vid.
19. Pviad hann nidurþrickte og yfergaf hinn Foatæka, Hann droo þau Hws under sig sem hann biggde ecke.
20. Pviad hans Bwkur kunne ecke sadður ad verda, hann mun ecke umflwed gieta fyrer sinna kostulegra Audæfa saker.
21. Þar mun og eckert epter verda af hans Mat, þar fyrer mun hans kræsiligur Lifnadur ongvann stad hafa.
22. Enn þo hann hafe yfergnæfanlegar Nægter, þa mun þo honum erfidt veita, Alls hoattud Armæda mun yfer hann koma.
23. Hans Bwkur mun eitt sinn fullur verda, og Hann mun senda sijna Hefndarreide yfer hann, Hann mun loata rigna sinn Ofrid yfer hann.
24. Fyrer Joarnharneskiu mun hann flya, og sa Stoalbogenn mun ellta hann a flootta.
25. Þar mun eitt naked Sverd ganga ut j giegnum hann, og Sverdsins Leiptran, sem honum mun beiskleg verda, mun med Skielfingu yfer hann koma.
26. Þar er ecke neitt þad Mirkur sem honum

nuſtu kunne ad ſkyla, Sa Elldur ſem þar er ecke (c) upp kveiktur mun foreyda honum, og þad mun þeim jlla vegna ſem epter ordner eru j hans Heimele.

(c) (Uppkveiktur) þad er, Einn Elldur af Gude Upptendradur, enn ecke af Mønnum.

27. Himenenn mun openbera hans Mis-giorninga, og Jordenn mun uppſetia ſig j moote honum.

28. Hans Korn mun j burt flytiaſt af hans Heimele, og utdreifaſt a hans Reidennar Deige.

29. Þetta eru Launenn eins Ogudrækins Manns hiaa Gude, og Arftakann hans Orda hiaa Gude.

## XXI. Capitule.

Job ræder vid Vine ſijna um Luckn og Olucku hinna Ogudlegu.

Job ſvarade og ſagde.
2. Heyred þa mijnu Maale, og laated raadleggia ydur.
3. Umlijded mig, þo ad eg meige og ſo tala, og daared mig ſvo ſijdan.
4. A eg vid einn Mann, ſo ad mitt Gied meige og ecke þar af ſturlaſt?
5. Snuæd ydur hingad til mijn, og munud þier dapraſt, og hallda ydar Hondum fyrer ydar Munn.
6. Nær eg minneſt a þad, hrædeſt eg, og þar kiemur Skialfte a mitt Holld.
7. Hvar fyrer lifa hiner Ogudhræddu, verda gamler, og eignaſt ſo mikel Audæfe?
8. Þeirra Sæde er Andvaralauſt j kring-um þa, og þeirra Afkvæme er hiaa þeim.
9. Þeirra Hws hefur Frid fyrer Otta-num, og Guds Hirtingar Vondur er ei yfer þeim.
10. Hans Naut er frioott og feller þad ec-ke nidur, hans Kijr hun Kelfer, og miſſer ecke ſijns Burdar.
11. Þeirra Ungu Born ganga wt ſem on-nur Hiord, og þeirra Smaaborn ſtockva upp og leika ſier.
12. Þeir ſkiemta ſier med Bumbum og Horpum, og gledia ſig med Pijpum.
13. Þeir verda gamler j Sællijfenu, og ſkielfaſt varla eitt (a) Augabragd fyrer Hel-vijte.

(a) (Augabragd) Þad er, þeir hafa goda Daga allt j Daudann, og þad er ecki ad giøra nema um eitt Augabragd, ſo er þad giort med þa, enn eg verd ad lijda Skelfing og Pijnu ſo leinge.

14. Þeir ſem þo ſeigia ſo til Guds, Vijk þu burt fra oſs, vier vilium ecke vita af þij-num Vegum.
15. Hvor er ſa hinn Almaattuge, þad vier villdum þioona honum? Eda hvoria For-betrun hofum vier þar wt af, þo ad vier aa-kollum hann.
16. Enn ſiaa þu, þeirra Gots ſtendur ec-ke j þeirra Hondum, þar fyrer ſkal Sinned hins Ogudlega vera langt fra mier.
17. O! hvornenn mun Lioos þeirra Ogud-legu wtſlockvaſt, og þeirra Ogiæfa yfer þa koma, Hann mun Hiartans Angre wtſkipta j ſinne Reide.
18. Þeir munu verda ſem annad Gras-Straa fyrer Vinde, og ſo ſem annad Jar-dar Dupt, þvi ed Storvidre j burtu feyker.
19. Gud helldur hans Olucku uppa hans Born, þa nær hann vill endurgiallda ho-num þad, þa munu Menn faa ad vita þad.
20. Hans Augu munu ſiaa ſijna For-diarfan, og wt af Grimmdar-Reidenne hins Almaattuga mun hann drecka.
21. Þvi hvor mun hafa gooda Þocknan til hans Heimelis epter hann? Og Talann hans Maanudanna mun naumlega hoalfnud verda.
22. Hvor er ſa ſem hann vill læra Gud? Hann hvor ed og dæmer þa enu hoau?
23. Þeſſe j burtu deyr kaſkur og Heilbrig-dur, j ollum Rijkdome, og hefur fulla Nægd.
24. Hans Miolkurkierolld eru full af Miolk, og hans Bein þau fitna af Merg.
25. Enn hinn annar deyr j burt med for-gande Saalu, og hefur alldrei med Glede Mat eted.

26. Og þeir liggia lijka hvor med ödrum tilsamans j Jordunne, og Madkarner hylia þa.

27. Sioa þu, eg þecke ydar hugsaner vel, og ydar ranglegt uppsatur a moote mier.

28. Hvad þier seiged, Hvar er Hofdingians Hws? Og hvar er su Tialldbwdenn hvar þeir Ogudlegu biuggu?

29. Þier seiged þar wtaf, lijka sem annad Alþydu Folk, og hygged ecke ad þvi, hvad hinna Athæfe merker.

30. Þviad sa hinn Illgiarne vardveitest til Fordiorfunar Dagsins, og hann varer til Grimmdarennar Dags.

31. Hvor vill seigia hvad hann forþienar, nær ed þad verdur utann til aalited? Hvor vill (b) launa honum þad hann giorer?

(b) (Launa) Þad er, hvør kann, utann GUd alleina, ad dæma honum hans Laun.

32. Enn hann mun burt sviptast til Grafarennar, og blijfa þar j hia (c) Fiol danum.

(c) (Fiøldanum) þad er, hønum er Grøf buinn hia ødrum Grøfum.

33. (d) Saurbleytann Lækiarins þocknast honum vel, og aller Menn munu honum epterfilgia, og þeir eru otelianleger sem fyrer honum voru.

(d) (Saurbleytann) Þad er, Holldsins Vellysting og Kræsingar.

34. Hvornenn hugsvaled þier so mier til forgiefens? Og ydar andsvor þau finnast o-riett.

## XXII. Capitule.

Eliphas talar i Þridia Sinne vid Job.

Þa svarade Eliphas af Theman, og sagde.

2. Hvad þarf GUd hins Ofluga vid? Eda hvar til er honum sa Raadklooke nytsamlegur?

3. Hvort þeinker þu, ad þad þocknest so vel hinum Almaattuga, ad þu giorer þig so Riettferdugann? Eda hvad stodar þad honum þo ad þu hallder þijna Vegu so Lytalausa?

4. Þeinker þu þad, ad hann mune ei þora ad straffa þig, og ganga j Dom vid þig?

5. Jaa, þijn Illska er ofmikel, og þar er eingenn Ende a þijnum Misgiorningum.

6. Þu hefur teked Pant af þijnum Brodur van Ordsakar, og flett hina Noktu Klædum.

7. Þu hefur ecke giefed moodum Vatn ad drecka, og hefur neitad þijns Brauds þeim Hungrudu.

8. Þu hefur giort Ofrijke j Landenu, og pracktuglega þar jnne seted.

9. Eckiurnar hefur þu med toomum Hondum fra þier laated fara, og Armleggena þeirra Fodurlausu j sundur broted.

10. Þar fyrer ert þu umvafenn med Snorum, og Hrædslann hefur skyndelega skielft þig.

11. Skyllder þu þa ecke sioa (a) Mirkred, og skyllde ecke Vatnsflooded hylia þig?

(a) (Mirkred) kallar hann Hriggd og Ogiæfu. Þar j mote Liosid Luctu og Farsælld.

12. Sioa þu, GUd er haatt þar upp yfer j Himnenum, og sier þær Stiornurnar þar upp j Hædenne.

13. Og þu seiger, Hvad veit GUd? Skyllde hann kunna ad dæma þar um sem j Mirkrunum er?

14. Skijenn þau skyggia a hann, og hann sier ecke, og hann geingur j Umgange Himnanna.

15. Villt þu hyggia ad hlaupe Veralldarennar, a hvoriu þad hiner Ranglaatu hafa geinged?

16. Þeir ed glotudust aadur enn Tijmenn kom, og Vatned hefur j burt þveged þeirra Grunndvoll.

17. Þeir sem sogdu til Guds, Far þu fra oss, hvad skyllde sa Almaattuge kunna ad giora þeim?

18. Þar ed hann uppfyller þo þeirra Hws med Audæfum, enn Meiningenn hinna Ogudlegu sie langt fra mier.

19. Hiner Riettvijsu mundu sioa þad og glediast vid, og sa hinn Saklause mun hæda ad þeim.

20. Hvad gillder, ad þeirra Umsijslan mun j burt hverfa, og Elldurenn mun foreyda þeirra Epterleifum.

21. Þar fyrer forlijktu þig nu vid hann, og haf Frid, þar af muntu foa miked gott.

22. Heyr þu Logmaaled af hans Munne, og hondla hans Rædu j þijnu Hiarta.

23. Ef þu snyr þier til Hins Almaattuga, þa munt þu uppbiggdur verda, og laata Raangleted fiarlægt verda þinne Tialldbwd.

24. So muntu giefa Gull fyrer Jord, og Gull-Læke fyrer Griotsteina.

25. Og sa hinn Almaattuge mun vera þitt Gull, og þu munt foa stoora Hruogu Silfurs.

26. Þa munt þu þijna Lysting hafa til hins Almaattuga, og upphefia þitt Auglit til Guds.

27. Þa muntþu og bidia haṅ, og mun hann bænheyra þig, og þu skallt enda þijn Heit.

28. Hvad sem þu aasetur þier, þad mun hann laata þier vel luckast, og Liooſed mun skijna a þijnum Veige.

29. Þvi þa sem sig lijtelæta þa upphefur hann, og hvor hann nidur slær sijnum Augum, þann mun GUd frelsa.

30. Og sa hinn Saklause mun frelsadur verda, og hann mun frelsast fyrer Hreinferdis saker hans Handa.

## XXIII. Capitule.

Job afhender Drottne sitt Maalefne.

Þa svarade Job, og sagde:

2. Mijn Ræda blijfur enn hriggelegg, minn Maattur er veikur yfer minne Andvarpan.

3. O! eg villda, ad eg vissa hvornenn eg gæte funded Hann, og eg mætte koma til hans Stools.

4. Og setia Sokena j Doom fyrer hann, og uppfylla minn Munn til Asokunar.

5. Og reyna þau Ordenn sem hann svarar mier, og skilia þad hvad hann mun seigia mier.

6. Vill hann ganga med stoorre Magt j Doom vid mig? Hegde hann sier ei so vid mig.

7. Helldur legge hann þad jafnadarsamlega fyrer mig, þa mun eg vel vinna mitt Maal.

8. Enn gange eg nu riett aafram, þa er hann þar ecke, gange eg tilbaka, þa uppspyr eg hann ecke.

9. Sie hann til vinstre Hlidar, þa hondla eg hann ecke, skyle hann sier til hægre Hlidar, þa sie eg hann ecke.

10. Enn minn Veg þecker hann vel, Hann reyner mig, og mun eg þa fundenn verda lijka sem annad Gull.

11. Þviad eg set minn Foot uppa hans Veg, og eg vardveite hans Vegu, og vijk þar ecke vot af.

12. Og eg vijk ecke af Bodordum hans Vara, og eg vardveite Ordræduna hans Munns meir enn eg er skylldugur til.

13. Hann er (a) Eirn, hvor vill svara honum? Hann giörer þad lijka sem hann vill.

(a), Gal. 3, 20. Einn Medalgangare er ecke eins Medalgangare, enn GUd er eirn.

14. Og þo hann bitale mier þad sem eg hefe forþient, þa er þad enn meira epter.

15. Þar fyrer þa skielfest eg fyrer honum, og nær ad eg formerke þad, þa hrædest eg fyrer honum.

16. GUd hann hefur linad mitt Hiarta, og sa Hinn Almaattuge hefur skielft mig.

17. Af þvi ad Myrkred giörer þar ongvann Enda a vid mig, og su Dymmu Þoka kann vill ecke skylast fyrer mier.

## XXIV. Capitule.

Job talar um Svijvirdeleg Verk hinna Oguðelegu.

Hvar fyrer mun Tijmenn ecke hulenn vera fyrer þeim hinum Almaattuga? Og þeir ed hann þeckia sioa ecke hans Daga.

2. Þeir reka Landamerkenn aptur a bak, þeir ræna Hiordenne, og fæda hana.

3. Þeir burt reka Asnana hinna Fodurlausu, og taka Ecknanna Nautfienad j Pant.

4. Hiner Faatæku hlioota ad ryma fyrer þeim, og hiner Þurftugu j Landenu hlioota ad geyma sig.

5. Siaa þu. (a) Villudyrenn j Eydemørkenne ganga wt, sem þau eru Von, snemma til ad ræna, ad þau tilbwe fædslur fyrer Ungana.

(a) (Villudyrenn) þeir Friaalsu, Oottalausu og grimmu Tyrannar?

6. Þeir uppvinna þann Akurenn allt þad hann a sier ber, og plocka þann Vijngardenn sem þeir hallda med Raungu.

7. Þeir laata hina Fatlausu liggia, og veita þeim ecke neitt Skiool j Kuldanum, j fra þeim er þeir tooku þo Klædenn.

8. So ad þeir hlioota sig ad hallda til Klettanna, nær ed þad Hretvidred af FiølIunum gys yfer þa, af þvi ad þeir hafa ecke neitt annad Hæle.

9. Þeir j burt taka Barned af Briostunum, og giora þad Fodurlaust, og þeir giora Folked faatækt med sijnum Pontum.

10. Hina noktu laata þeir klædlausa ganga, og þeir j burt taka Bindenenn fra þeim Hungrudu.

11. Þeir þvijnga þa til ad giora Vidsmiør a sialfs þeirra Kvørnum, og ad troda Vijned j sialfs þeirra Vijnþrwgum, og laata þa þo lijda Þorsta.

12. Þeir laata Folked j Stodunum andvarpa, og þad Saaler hinna jhel slegnu þær kalla, og Gud hann steyper þeim ecke.

13. Þar fyrer eru þeir affallner fra Liosinu, og þeckia ecke hans Vegu, og snwa sier ecke aptur a hans Vegu.

14. Mordingenn stendur upp þa ed dagar, og myrder hinn Faatæka og hinn Þurftuga, Enn a Nottenne er hann sem annar Þioofur.

15. Augad Hoorkarlsins giæter ad Mirkrenu, og seiger so, Eckert Auga þad sier mig, og þeinker so ad hann sie hulenn.

16. J Mirkrenu brytst hann jnn j Hused, Enn a Dagenn fela þeir sig til samans, og fordast Liosed.

17. Þvi Nær Morgunenn kiemur þeim, þa er hann þeim lijka sem annad Mirkur, Þviad hann formerker Skielfingena Mirkursins.

18. Hann fer so liettelega j burt hiedann sem a ødru Vatne, hans Gots verdur lijted j Landenu, og hann (b) uppbygger ecke sinn Vijngard.

(b) Þeir ed ecki Saurlijfe, fyrerkoma sijnu.

19. Helvijted svipter þeim j burt sem syndgast, lijka so sem Hitenn, og Þurkurenn, sem burt þurkar Sniovatned.

20. Miskunsemenn mun forgleyma honum, Hans Lysting mun Modkum vella, hans mun og ecke meir gieted verda, Hann mun og j sundurbrotenn verda sem annar fwenn Fauskur.

21. Hann hefur giort jllt þeirre hinne Einmana sem Obyria er, og Eckiunum giorde hann ecke neitt til Gooda.

22. Hina Vollduga lagde hann under sig med sinne Magt, Nær ed hann stendur, þa mun hann þo ecke vijs verda um sitt Lijf.

23. Hann giorer sialfum sier uggaleyse, Hans Augu siaa þo samt a þeirra (c) Giørning,

(c) (Þeirra Giørning) þad er, So ad þeir skule ecke giora Uppreisn a moote honum, þa underþricker hann þa alltijd, og maa so leita sier uggaleysis med Hægdum, Enn þad varer ecke leinge.

24. Þeir eru um litla stund upphafner, og verda ad ongvu, Og nidurþrickter og eydelagder med øllu, Og lijka sem þad firsta Bloomstur a Axenu, þa munu þeir afslegner verda.

25. Enn er þad eige so? Nu vel, hvor vill straffa mig um Lygenæle, og sanna þad, ad mitt Maal sie eckert.

## XXV. Capitule.

Bildad talar þridia Sinne til Jobs.

Pa svarade Billdad af Suah, og sagde.
2. Er ecke Herradæmed og Ognenn
hioa honum sem giorer (a) Fridenn a medal
sinna hinna Hærstu?

(a (Fridenn: Hver skyllde giora þier nockud, Gud er
Almaattugur, og kann vel ad hindra þa megtugu, ef
þu ad eins ert godur, og þu meinar ad hann vite
ecke þad sem þu adur sagder.

3. Hvor sær taled hans Strijdsmenn?
Og yfer hvorium þa uppgeingur ecke hans
Lios?
4. Og hvornenn kann Madurenn Riett-
laatur ad vera fyrer Gude? Og hvornenn
kann eitt Kvinnunar Barn hreint ad vera?
5. Sioa þu, Tungled skijn enn nu ecke,
og Stiornurnar eru enn ecke klaarar fyrer
hans Augum,
6. Hvorsu miklu midur mun þa Madu-
renn sa Madkur, og eitt Mannsins Barn sa
Ormur.

## XXVI. Capitule.

Job talar um Guds Majestet.

Job svarade og sagde.
2. Med hvorium helldur þu? Med
þeim sem hefur ongva Magt? Hialpar þu
þeim sem ongvann Stirkleik hefur j Hand-
leggiunum?
3. Hvorium giefur þu Raad? Þeim sem
ongvann hefur Vijsdoomenn? Og under-
vijsar þad þeim Vollduga, hvornenn ad hann
skule þad fullkomna?
4. Fyrer hvorium talar þu? Og fyrer
hvorium geingur Andardraatturenn wt af
þier?
5. (a) Koppunum under Vatnenu er
þungt, og þeim sem bwa hioa þeim.

(a) (Koppunum) þad er, þeir stooru Hvalfiskar, hvorier
ad merkia þa stooru Vijkinga og Tyranna a Jor-
dunne.

6. Helvite þad er opnad fyrer honum,
og Fordiorfunenn hefur ongva skyling.
7. Hann utbreider Nordred uppa ecke
neitt, og uppheinger Jordena a ecke neitt.
8. Hann safnar Vatnenu saman j sijn
Skij, og Skijenn rifna ecke þar under.
9. Hann uppheldur sijnum Stool og ut-
breider sijn Skij þar yfer.
10. Eitt Takmark hefur hann j kringum
Vatned sett, þangad til ad Liosed og Myr-
kred forganga.
11. Stoolpar Himensins skialfa og hrædast
hans Avijtan.
12. Fyrer hans Maatt uppæsest Sioorenn
skyndelega, og fyrer hans Skilning upphefur
sig Hafsins Hæd.
13. A Himnenum verdur þad fagurt fyrer
hans Vind, og Hond hans tilreider langa
Hoggorma.
14. Sioa þu, so geingur hans Giornin-
gur til, Enn þar ut af hofum vier fornumed
eitt lijted Ord, Enn hvor kann ad skilia Rei-
darþrumur hans Stirkleika?

## XXVII. Capitule.

Job vill ecke vera Einn Hræsnare.

Og Job talade enn framar, og hoof upp
sijna Ordskvidu, og sagde.
2. So sannarlega sem Gud hann lifer,
hvor ed minn Riett lætur ecke framm ganga,
Og sa hinn Almaattuge, hvor ed hrigger mij-
na Saalu,
3. So leinge sem þad minn Ande er j mier,
og þad sa Andardraatturenn af Gude er j
mijnum Nosum,
4. Pa skulu mijnar Varer ecke tala Oriett-
tinde, og mijn Tunga skal ecke Svikræde
mæla.
5. Þad sie langt fra mier, ad eg giefe
ydur riett, Eg vil og ecke burt vijkia fra
mijnu Sakleyse, fyrr enn þad mijn Æfelok
koma.
6. Eg læt ecke af þvi Riettlæte sem eg hefe,
Mijn Samvitska bijtur mig ecke, fyrer alls
mijns Lifnadar saker.
7. Enn minn Ovinur mun ogudlegur fin-
nast, og hann raangláatur, sem setur sig upp
a moote mier.
8. Þvi hvad er Vonenn (a) Hræsnarans,

þad hann er so fiegiarn, enn Gud hann j burt svipter þo hans Saalu?

(a) Hræsnarar Kallast j allre þessare Book falsker Menn, svo sem eru aller þeir fyrer Gude sem eru ecki Truarennar.

9. Þeinker þu, ad Gud mune heyra hans Kall, nær ed Angist kiemur yfer hann?

10. Hvornenn kann hann ad hafa Lyst til hins Almoattuga, og nockurn Tijma ad aakalla Gud?

11. Eg vil læra ydur af Guds Hende, og þad hvad ed duger j hiaa þeim Almoattuga, þad vil eg ecke dylia.

12. Siaa, þier hallded ydur alla fyrer hyggna, enn hvar fyrer þa framm seiged þier soddan Onytsamlega Hlute?

13. Þad hid sama er Verdkauped eins Oguðlegs Manns hiaa Gude, og þar er Arftakann þeirra Vijkinganna, hvoria þeir skulu faa af hinum Almoattuga.

14. Þo hann hafe mørg Børn, þa munu þau fyrer Sverde deya, Og hans Epterkomendur munu eige faa gnoglega Fædslu.

15. Hans hiner Epterblifnu munu grefrast j Daudanum, Og hans Eckiur munu ecke (b) syrgia.

(b) (Graata) þær munu fagna þa hann er Daudur.

16. Þo hann samanrake so Peningunum sem Jordu, og Klædunum sem Leir,

17. Þa mun hann ad sonnu vel tilbua þau, enn sa hinn Riettlaate mun j klæda sig þeim, og sa hinn Saklause mun utskipta þeim Peningunum.

18. Hann uppbygger sitt Hus sem ønnur Gaungurofa, og lijka sem eirn Giætsluvordur giører sier eitt forskygne.

19. Nær hinn Rijke leggur sig ut af, þa mun hann þvi ecke med sier j burt soopa, Hann mun uppluka sijnum Augum, og þar mun ecke þar vera.

20. Hrædsla mun yfer hann falla sem annad Vatn, Stormvidred a Noattartijmanum mun j burt svipta honum.

21. Sa Austanvindurenn mun j burtu flytia hann, so hann fare hiedan, Og Hrijdvidred mun hrinda honum ur sijnum stad.

22. Hann mun leida soddan yfer hann, og vægia honum ecke, Aller hluter munu burt flya ur hans Hondum.

23. Yfer honum munu þeir klappa Hondum til samans, og blijstra yfer honum þar ed hann var.

## XXVIII. Capitule.

Job talar um Guds Speke, og Hyggende Mannanna.

Silfred þad hefur sijna uppgaungu, og Gulled sinn stad, þar þad smelltest.

2. Jarned þad tekst ur Jordunne, og ut af Steinunum smelltest Koparenn.

3. (a) Myrkred fær eitthvort sinn eirn Enda, og einhvor finnur med þad sijdarsta Skuffsteinenn sem diupt er nidur folgenn.

(a) (Myrkred) þad er, Madur grefur um sijder so diupt, þar til ad hann finnur þad huled er j Jardarinnar Myrkre.

4. Þar utsprettur soddann eirn Lækur, ad þeir sem þar bwa j Noand, þeir missa þar Veigenn, Og hann siatnar sijdan nidur aptur, og rennur langt j burt fraa Foolkenu.

5. Þar færst og Elldur nedan undan Jordunne, þar ed Fædann vex upp yfer.

6. Þar finnst og Saphirus j sumum hvorium Stodum, og þær Jardartorfur sem Gull er ut j.

7. Þann Farveigenn hvorn eingenn Fugl hefur kannad, og einskis Gamms Auga hefur sied.

8. Þau hinu (b) Stolltu Bórnenn hafa þar ecke uppa troded, og ecke neitt Leon hefur þar yfer geinged.

(b) (Stolltu Børn) þad eru þau ungu Leon.

9. Þar leggiast og eirnenn Hendur a þau Steinbiørgenn, og Fiollenn verda umgrafenn.

10. Menn laata utrenna Lækena af Fiollunum, og Augad sier þad allt hvad kostulegt er.

11. Menn stijfla af Straumenn Vatnsins,

sins, og laata þad sem þar er folged jnne koma j Lioos.

12. Enn hvar vill Vijsdomurenn finnast? og hvar er sa stadurenn Skilningsins?

13. Eingenn veit hvar hann liggur, og ei verdur hann fundenn j Landenu þeirra Lifondu.

14. Underdiuped þad seiger, Eige er hann j mier, og Siorenn hann seiger, Ecke er hann hiaa mier.

15. Þar verdur eige giefid Gull fyrer hann, eige helldur Silfur utveiged ad bijtala hann med.

16. Ophirs Gull og þeir dyrendis Onych og Saphir gillda ecke til lijka vid hann.

17. Gull og Adamas kann ecke ad lijkiast vid hann, og ecke færst hann ad vedsla fyrer Gull Clenodia.

18. Ramoth og Gabis aktast ecke, Viisdomurenn er hærra vigtande enn Perlur.

19. Sa Topasius af Morlande virdest ecke til lijka vid hann, og þad skijrasta Gull gillder ecke jafnt vid hann.

20. Hvadan kiemur Vijsdomurenn þa? Hvar er Skilnings stadurenn.

21. Hann er foolgenn fyrer Augum allra þeirra ed lifa, hann er og eirnenn foolgenn fyrer Fuglunum under Himnenum.

22. Fyrerdæmingenn og Daudenn þau seigia, Vier høfum heyrt hans Rikte med vorum Eyrum.

23. Gud hann veit Veigenn þangad, og hann þecker hans stad.

24. Þviad hann sier Jardarennar enda, og hann sier allt þad sem under Himnenum er.

25. Þar hann giørde Vindenum sinn Vigtarþunga, og sette Vatnenu sinn vissann Mæler.

26. Þa hann giørde Regnenu sitt Takmark, og þeim Elldenum og Reidarþrumunum Veigenn,

27. Þa soa hann hann, og framm talde hann, hann tilreidde hann, og fann hann.

28. Og hann sagde til Mannsins, Sioa þu, Otte DROTTins þad er Vijsdomurenn, og ad fordast hid Vonda þad er Skilningurenn.

## XXIX. Capitule.

Job talar um sijna Luku og Velgengne sem hann adur hafde.

Job hoof enn upp aptur sijna Epterlijking, og sagde.

2. Eg villda ad eg være lijka sem eg var a þeim Firrum Maanudum, a þeim Døgum, þa GUD hann vardveitte mig.

3. Þann Tijd, ad hans Lioos skein yfer mijnu Høfde, og eg gieck vid hans Lioos j Myrkrenu.

4. So sem þa eg var j Tijd mijns Ungdoms, þa ed Guds Leyndur Doomur var yfer mijnu Heimele.

5. Þann Tijd Hinn Almaattuge var enn med mier, og mijn Børn j kringum mig.

6. Þa ed eg þvoda mijn Footspor j (a) Smiøre, og Steinbiørgenn vothelltu mier Vidsmiørs lækium.

(a) (Smiøre) þa eg hafda gnott allra hluta, og allt þad eg hafde var feitt, og yferfliotanlegt.

7. Þa ed eg gieck til Borgarhlidanna j Stadnum, og liet tilbwa minn Stool a Strætum.

8. Þa hiner ungu Menn saau mig og þeir foldu sig, og þa hiner Gomlu stoodu upp fyrer mier.

9. Þa ed Høfdingiarner gaafu upp ad tala, og hielldu sijnum Høndum fyrer sinn Munn.

10. Þa ed Raustenn Høfdingianna byrgde sig, og Tungurnar a þeim loddu vid þeirra Gooma.

11. Þviad hvørs þess Eyra sem mig heyrde þad prijsade mig Sælann, og hvørs Auga sem mig saa þad hælde mier.

12. Þviad eg frelsade hinn Faatæka þa ed hann kveinade, og þann Fødurlausa sem onngvann Hiaalparmann hafde.

13. Hans

13. Hans Blessan sem fordiarfast atte hun, kom yfer mig, og eg gladde Hiarta Ekkiunnar.

14. Riettvijsenn var minn Klædnadur, hvorre eg jklædde mig sem odrum Kyrtle, og minn Domur var mijn Velldis Hwfa.

15. Augad hins Sioonlausa var eg, og Fæturnar hins Footlama.

16. Eg var Fader hins Fatæka, og hvort þad Maalefne sem eg vissa ei, þad vtspurda eg.

17. Jaxlana hins Rangláta j sundur braut eg, og sleit þad Ran-Fied vr hans Tounum.

18. Eg þeinkte so, eg vil deya j mijnu Hreidre, og giora mijna Daga so marga sem Sand.

19. Mitt Sæde þad rann upp vid Vatned, og Naattdoggenn var yfer mijnum Kornskurde.

20. Mijn Dyrd anyade sig alltijd fyrer mier, og minn (b) Boge batnade j minne Hende.

(b) (Boge) þad er, Mijn Magt for dagleg Vaxande.

21. Þeir hlyddu a mijn Ord og þøgdu, og hugdu aller ad minne Raadleggingu.

22. Epter mijna Ordrædu þa talade einginn fleyra, og mijn Mælska hun draup a þa.

23. Þeir væntu epter mier sem annare Doggu, og opnum hielldu þeir sijnum Munne lijka sem epter odru Kvølldregne.

24. Nær ed eg (c) broste med þeim, þa dyrfdust þeir þar ecke vid, og þad Lioosed mijns Auglites giorde mig ecke minne Haattar.

(c) (Broste). Eg var vingiarnlegur og gladur vid þa, enn þo feingu þeir ecke þar af ofdyrsd ad fyrerlijta mig, eg var ecke þarfyrer fyrerliteinn þo eg være sijfellt leaa j umgeingne vid þa.

25. Þa eg villde fara til þeirra Sijslunar, þa vard eg ad sitia hinn efste, og eg bioo a mille Strijdsmannanna sem einn Kongur, þa ed eg hugsvalade þeim sem Harmþrwngner voru.

# XXX. Capitule.

Job talar um sinn Hrigaelega og Saargrætelega Eymdar, hag er hann være nu staddur i.

Enn nu hlæa þeir ad mier sem yngre eru enn eg, hvorra Fedur eg hefde ei virdt ad setia hia Hundum minnar Hiardar.

2. Hvorra Formegan eg hiellt einskis nyta, þeir ed ei gaatu komest til fulls Alldurs.

3. Þeir sem af Hungre og Vesølld einmana flydu a Eydemørkena, og voru nu nylega fordiarfader og vesæler vordner.

4. Þeir ed upplockudu þad Netlugrased hia Vidar-Runnenum, og su Rootenn Einebertriesins var þeirra Matur.

5. Og nær ed þeir uppricktu þeim þa hlockudu þeir yfer þvi, lijka sem Þioofur.

6. Þeir biuggu j hia hrædelegum Lækium, j þeim Jardarholunum, og Biargskorunum.

7. A mille Skoogar-Runnanna kølludu þeir, og under Þyrslunum samansøfnudust þeir.

8. Børnenn þeirra hinna Faavijsu og Fyrerlitnu Manna, þeir sem minnstu Haattar voru j Landenu.

9. Nu er eg ordenn þeirra Hlioodfæris leikur, og hlyt ad vera þeirra Fraasaga.

10. Þeir hafa andstyggd a mier, og hafa sig langt fra mier, og þeir hirda ecke þo þeir hræke fyrer minne Asionu.

11. (a) Þeir hafa fraaspennt mijna Saalu, og giort mig ad øngvo, og (b) svipt Beislenu af mijnu.

(a) (Þeir) þeir Chaldei.

(b) (Svipt Beislenu) þad er, þeir hafa skiled mig vid Vagna og Vagnsveins Embætte, þad er minn Herradoom.

12. Þeir settu sig a moote mier vid þann Hægra Veigenn, þar sem eg bloomgadest, og j burtu skwfudu mijnum Fæte, og giordu sier Veg yfer um mig mier til fordiorfunar.

13. Þeir nidur brutu mijna Vegu, og þad var þeim so audvelldt ad giora mier Skada, so þeir þurftu þar øngrar Hialpar vid.

14. Þeir eru jnnkomner lijka sem j gieg-
num eitt vijdt og miked Vindauga, og eru
hier jnnfallner Fylkingarlaust.
15. Skielfingenn snere sier a mote mier,
og offsookte mijna Dyrd sem annad Sterkvid-
re, og mitt Giæfu-løan lijka sem annad ood-
fluga Skij.
16. Enn nu wtheller sier mijn Saala yfer
mig, og sa wtlegdar Tijmenn hefur hønd-
lad mig.
17. A Nottenne stijngast mijn Bein j gieg-
num alla Vegana, og þeir sem mig jaga leg-
gia sig ecke ad sofa.
18. Fyrer Margfalldleik Kraptarins verd
eg odruvijs og odruvijs (c) Klæddur, og
þeir spenntu þvi ad mier lijka sem Haalsmaa-
lenu mijns Kyrtels.
(c) (Klæddur) þad er, eg jklædist marghaattadre Ogiæfu med Ofrijke, so ad eg kann þvi ecke ad hamla, og eg spennist so hardt, ad eg kann ecke laus ad verda, og eg verd ad hafa þad, so sem eirn Kyrtil a Lijkamanum.
19. Þeir hafa troded mig nidur j Þrec-
kenn, og aktad mig sem Dupt og Ösku.
20. Hropa eg til Þijn, þa svarar þu mier
ecke, geing eg framm, þa skeyter þu eckert
um mig.
21. Þu ert mier nu umsnuenn til eins sem
er hrædilegur, og audsyner þijna Reide a
mier med þeim Stirkleiknum Handar þinnar.
22. Þu lypter mier upp, og lætur mig
fara a Vindenum, og sundur smellter mig
kroptuglega.
23. Þvi eg veit, ad þu munt ofurselia mig
Daudanum, þar er þad tileinkada Hwsed
allra lifendra.
24. Þo mun hann ecke wtrietta sijna
Hønd, til (d) Beina Hwssens, og þeir mu-
nu ecke hroopa fyrer hans Fordiarfan.
(d)(Beinahussins) J Beinahusinu mun eg hafa Hvijld.
25. Eg griet a þeim Hardinda Tijmanum,
og mijn Saal kienndé j Brioste um hinn Faa-
tæka.
26. Eg vænte hins Gooda, og kiemur þad
hid Vonda, eg vonade epter Liosenu, enn
kiemur Mirkred.
27. Mijn Innifle sioda og laata ei af,
Hørmungartijmenn er yfer mig fallenn.
28. Eg geing framm Dockleitur, enn þo
brenner Soolenn mig ecke, eg stend upp j
Safnadenum, og kalla.
29. Eg er Hoggormsins Broder, og eirn
Samfielage Strutfuglsins.
30. Mijn Hwd er svort ordenn yfer mier,
og mijn Bein eru af Hita upp þornud.
31. Mijn Harpa er ordenn ein Sorgar
Kløgun, og mijn Hlioodpijpa eirn Hriggdar
grætur.

# XXXI. Capitle.

Job talar um, Hversu ad sier hafe vered Alvara ad Ottast GUd.

Saattmaala giorda eg vid mijn Augu, ad
eg skyllde ecke akta uppa neina Mey.
2. Enn hvad giefur GUd hier ofann ad
mier j Verdlaunenn? Og hvad giefur Sa hinn
Allmaattuge af Hædunum mier j Arftoku?
3. Skylltu ecke helldur hiner Raangläatu
hafa soddann Olucku? Og eirn Illgiørda-
madur ad vera so wtrekenn.
4. Sier hann ecke mijna Vegu, og telur
alla mijna Gøngu?
5. Hefe eg nockud geinged j Hiegomanum?
Eda hefur minn Footur flytt sier til Svik-
rædesins?
6. So vege Mann mig a riettre Vog,
og mun GUd formerkia mitt Meinleyse.
7. Hafe minn Gangur af Veigenum vi-
ked, og mitt Hiarta mijnum Augum epter-
filgt, og hafe þar nockud lodad vid mijnar
Hendur,
8. Þa skal eg nidur saa, enn eirn annar
skal þad upp eta, og mitt Sleckte skal þa
upprætt verda.
9. Hafe mitt Hiarta laated teygia sig til
Kvenna, eda hafe eg j Leynum Staded j
Hwsdyrum mijns Naunga.

10. Pa verde mijn Eigennkona af einum ødrum skomnud, og adrer ligge med henne.

11. Pvi þad sama er eirn Løstur, og eirn Misgiørningur fyrer Doomaranum.

12. Af þvi, ad þad være sa Elldur sem allt uppbrennde til Fordiørfunar, og upprætte alla mijna Inntekt.

13. Hafe eg fyrerlited Riettarfared mijns Pionustumanns, eda Pionustukvinnu, nær þau høfdu Kiærumaal vid mig.

14. Hvad villde eg til giora nær ed GUd tæke sig upp? Og hvoriu skyllda eg svara þegar hann vitiar?

15. Hefur hann ecke giort hann, sem mig giorde j Modur Kvide? Og hefur hann j Lijfenu eins vel tilreidt?

16. Hef eg sagt nei vid Bæn hins Foatæka, og liet eg Eckiunnar Augu vanmegnast?

17. Hafe eg eted minn Mat eirn samall, so þad hiner Fødurlausu hafa ecke eted þar af?

18. Pviad eg hef audsynt mig so sem annann Fødur, allt j fra mijnum Barndome, og þegar j fra minnar Modurkvide hefe eg giarnann huggun veitt.

19. Hefe eg sied nockurn farast af Fatleyse, eda laated hinn Foatæka ganga Fatlausann?

20. Hafa ecke hans Sijdur blessad mig, þa ed þeim vard heitt af mijnum Lamba reifum?

21. Hefe eg (a) fared med minne Hende yfer hinn Fødurlausa, a medan eg saa j Portdyrønum mig hafa Magt til ad hialpa?

(a) (Fared) þad er, hraked hann hingad og þangad.

22. Pa j burt falle mijn Herdablød fra Auxlonum, og minn Armleggur breste fra Olbogunum.

23. Pviad eg hræddest GUd sem annad Afelle yfer mier, og eg kunne ecke ad bera hans Byrdar þunga.

24. Hafe eg sett Gulled til mijns Trausts, og so til Gullhnaussins sagt, Mitt Traust!

25. Hafe eg gladt mig vt af þvi, ad eg hafde miked Gots, og þad mijn Hønd hefde vtvegad allra handa?

26. Hafe eg (b) lited til Liossens nær ed þad skijn skiært, eda til Tunglsins nær ed þad fullt gieck?

(b) þad er, þa eg hafda Luckn hafde eg ecke mijna Vine þar med mier.

27. Hafe mitt Hiarta laated tæla sig Heimuglega, so ad minn Munnur (c) kysste a mijna Hønd?

(c) Kallast ad hrosa sialfs sijns Verke, hvad alleina Gude tilheyrer.

28. Pad sama er og ein misgiørd fyrer Domaranum, þvi þar med hefda eg neitad Gude hier ofann ad.

29. Hafe eg nockud gladt mig þa ad mijnum Ovin veitte jlla, og upphafed mig af þvi þo Ogiæfa kiæme yfer hann?

30. Pviad eg liet minn Munn ecke syndgast j þvi, þad hann æskte hans Saalu neirnre Bølvan.

31. Hafa þeir Menn a mijnu (d) Heimele ecke hloted ad seigia, GUd hann giefe þad, ad vier ecke sediunst af hans Kiøte.

(d) þad er, Mijn Hiu þordu ecke ad gyrnast neitt þad mijnum Ovinum var jmoote.

32. Einn Giestkomande maatte ecke vte vera a Naattartijma, helldur liet eg mijnar Dyr upp fyrer þeim Vegfarande var.

33. Hafe eg duled mijna Hreckvijse sem annar Madur, so eg nidurbyrgde minn Misgiørning leynelega?

34. Hafe eg laated hræda mig þann mikla Mannfiølda, og laated þa Fyrerlitningena Frændskaparins fra-skelfa mig? Eg var kirr, og gieck ecke vt af Dyrønum.

35. Hvør giefur mier eirn þann sem mig heyre, so þad hinn Allmaattuge villde heyra mijna Gyrnd, og þad einhvør mætte mitt Maalefne skrifa j eina Book.

36. Pa villda eg taka hann upp a mijnar Herdar, og spenna hønum j krijng um mig sem annare Koronu.

37. Toluna minna Fotspora skyllda eg þa

 supp

upp seigia, og eg villda framm seigia honum þad sem annar (e) Hofdinge.
(e) (Hofdinge) Ohræddur, diarflega.

38. Kalle mijn Jord j moote mier, og grœte hennar Akurreinar til samans.

39. Hafe eg eted hennar Avoxt obitaladann, og þvingad so Lijfed Akursmannanna,

40. Þa vaxe mier Þistlar j stadenn Hveitis, og Þyrnar fyrer Bygg. Ordenn Jobs hafa Enda.

## XXXII. Capitule.

Elihu talar til allra er voru Nalæger.

Þa lietu þeir þrijr Menn af ad giefa Job Andsvar, med þvi, ad hann hiellt sig ad vera Riettlœtann.

2. Enn Elihu, son Baracheel af Bus, ut af Slekte Ram, hann vard reidur Job, fyrer þad hann hiellt sijna Sœlu Riettferdugre enn Gud.

3. Hann vard og reidur vid þa þria hans Vine, af þvi þeir fundu honum ecke neitt Andsvar, enn fordæmdu þo Job.

4. Þviad Elihu bidleikade vid þangad til þeir hefdu talad vid Job, af þvi, ad þeir voru elldre enn hann.

5. Og first hann sœ þad, ad þar var ecke neitt Andsvar til j þeirra þriggia Manna Munne, þa reiddest hann.

6. Og þannenn svarade Elihu, son Baracheels af Bus, og sagde. Eg er ungur, enn þier erud gamler, Þvi fordadest eg og hræddunst ad audsyna mijna List a medal ydar.

7. Eg þeinkta so, Lœt þu œrenn tala, og lœt þu þann Alldurdomsins Mikeleik auglysa Vijsdomenn.

8 Enn Andenn er j Monnonum, og sa jnnblœsturenn hins Almœttuga giorer þa Skilnings-fulla.

9. Hiner Velldugu eru ecke hiner vijsustu, og hiner gomlu skilia ecke þad riettdæmed.

10. Þar fyrer vil eg og tala, Heyred mier, eg vil og lœta siœ mijna Konst.

11. Siœed, eg hefe bidleikad vid a medan þier toludud, Eg hugleidda ad ydrum Skilninge, þangad til þier fyndud uppa þa riettu Rædu.

12. Og eg hefe giefed giætur ad ydur, Enn siœed, þar er eingenn a medal ydar sem vande um vid Job, edur svare hans Mœle.

13. Kannske þier meiged seigia, Vier hittum a Vijsdomenn, Ad Gud hafe utskufad honum, enn eingenn annar.

14. Þad Mœl fullnæger mier ecke, Eg vil og ei svara honum epter ydrum ordum.

15. Oho! þeir eru oottaslegner, þeir kunna ecke meira ad svara, þeir kunna og ecke fleyra ad tala.

16. Enn af þvi, ad eg tafde so vid, og þeir kunna ecke ad tala (þvi þeir stoodu kirrer og svorudu ongvu framar meir,)

17. Þa vil eg fyrer minn part Svar giefa, og audsyna so mijna Konst.

18. Þvi eg er so fullur af þeirre Rædu, ad minn Ande þreynger ad mier j mijnum Book.

19. Siœ þu, Minn Kvidur er lijka sem annad nytt Vijn, þa þiett til dyptad er, hvort ad j sundur spreinger nya Leigla.

20. Eg hlyt ad tala, so eg fœe (a) Andrum, Eg verd ad uppluka mijnum Vorum og giefa svar.
(a) (Andrum) Eg kvelst annars af storum Vijsdoome.

21. Eg vil og einskis Personu œlijta, og og eg vil ongvann Mann lofa.

22. Þviad eg veit ecke (ef ad eg giorde þad) nema ad minn Skapare munde svipta mier j burtu jnnann lijtels Tijma.

## XXXIII. Capitule.

Elihu talar vid Job um Guds Rettlæte.

Job! heyr þu þo mijna Rædu, og hygg vel ad ollum mijnum Ordum.

2. Siœ þu, eg upplyk mijnum Munne, og mijn Tunga talar j Munne mijnum.

3. Mitt

3. Mitt Hiarta skal riett tala, og mijnar Varer skulu framm seigia þann hreina Skilning.

4. Guds Ande hefur giört mig, og jnnbloasturenn hins Allmoattuga hefur giefed mier Lijfed.

5. Kannt þu þa svara mier, bvo þig jmoote mier og tilreid þig.

6. Sioa þu, eg heyre Gude til, jafnvel sem þu, og eg er giordur eirnenn af Leire.

7. Enn þu þarft þo ecke ad hrædast fyrer mier, og mijn Hond skal ecke vera þier ofþung.

8. Þu talader fyrer mijnum Eyrum, eg blaut ad heyra Raustena þijns Moals.

9. Eg er hreinn fyrer utan Misverk, saklaus, og hefe ongva Synd.

10. Sioa þu, Hann hefur funded mier Sok, þarfyrer reiknar hann mig fyrer sinn Ovin.

11. Hann hefur sett mijnar Fætur j Stock, og hefur forvarad alla mijna Vegu.

12. Sioa þu, ad Riett ut af þessu hinu sama þa alykta eg a moote þier, þad þu siert ecke Riettloatur, Þvi Gud er meire enn Madurenn.

13. Hvar fyrer villt þu deila vid hann, þad hann giore þier ecke Reikningskap ut af ollum sijnum Giorningum?

14. Þvi þa nær ed Gud eitt sinn alyktar nockud, þa (a) hugsar hann ecke um þad hid fyrsta þar epter oa.

(a) (Hugsar) So sem Madurenn giorer, hann tekur Road þa um er lidid, og jdrast, og villde ogiort være. Enn sa Sigurvegarinn j Jsrael lygur ecke (seiger Samuel) og þad jdrar hann ecke, 1 Sam. 15, 29.

15. J Draume Synarennar a Noottinne, nær Svefnenn fellur yfer Menn, þa ed þeir sofa a Sængunum,

16. Þa opnar hann Eyrunn Mannanna, og ognar þeim, og agar þa.

17. So þad hann j burt snue Mannenum fra sijnum (b) Asetninge, og frelse hann j fra Offstækenne.

(b) Eins og Abimelech, Genes. 20, 7.

18. Og værge hans Soalu j fra Fordiorfunenne, og hans Lijfe, so þad falle ecke j Sverd.

19. Hann hegner honum med Verkium a hans Sæng, og ollum hans Beinum hardlegana.

20. Og hann temur hans Lijkama so, ad hann klyiar vid Matnum, Og hans Soal, so hun hefur ongva lysting til Matar.

21. Hans Holld þad j burt hverfur, so ad (c) Synenn sliofgast, og hans Bein taka ad brotna, so þau eru berseleg oasyndar.

(c) Synenn þverrar honum, hann kann hvorke sioa ne heyra.

22. So hans Soala flyter sier til Fordiorfunarennar, og hans Lijf til Daudans.

23. Ef þar være eirn Eingell, eirn af Þusund, sem talade fyrer honum, til ad kunngiora Mannenum, hvornenn hann mætte giora riett,

24. Þa munde hann honum lijknsamur vera, og seigia, Hann skal frelsast, so hann fare ecke hiedan nidur j Fordiorfunena, þviad Eg hefe funded eina Forlijkan.

25. Hans Holld skal blomgast aptur, lijka sem j Æskunne, og loata hann verda ungann aptur.

26. Hann mun og bidia GUD, og hann mun vera honum Lijknsamur, og loata hann sioa sitt Andlit med Glede, og hann mun þeim Manne endurgiallda epter hans Riettvijse.

27. Og hann mun vidurkienna sig fyrer Folkenu, og seigia, Eg villde hafa syndgast, og umvendt Riettenum, enn þad hefde mier eingenn Nytsemd vered.

28. Hann hefur frelst mijna Soalu, so hun foor ecke j Fordiorfunena, helldur so ad mitt Lijf sæe Lioosed.

29. Sioa þu, þetta alltsaman giorer GUD (d) Tvisvar eda Þrisvar sinnum vid hvorn eirn.

(d) Þad er, opt og ofialldan.

30. Ad hann sæke so hans Saal aptur vot af Fordiorfunenne, og upplyse hann med þvi Lioosenu þeirra lifendu.

31. Merk þetta Job, og heyr þetta, og þeig so eg tale.

32. Enn hafer þu nockud ad seigia, þa svara þu mier, Seig þu framm, Ert þu Riettlaatur, eg vil giarnan heyra þad.

33. Enn ef þu hefur ecke neitt til, þa hlyd þu a, og þeige þu, Eg vil kenna þier Vijsdom.

# XXXIV. Capitule.

Elihu talar framveges vid Job um Guds Rettlæte.

Og Elihu svarade, og sagde.

2. Heyred þier hiner Vijsu mijna Rædu, og þier hiner Skinsomu hygged ad mier.

3. Þviad Eyrad þad proofar Maaled, og Munnurenn smackar Matenn.

4. Laatum oss wtvelia eirn Doom, so vier meigum þeckia a medal vor hvad gott er.

5. Þvi Job sagde, Eg er Riettvijs, og GUD hann afneitar mier mijnum Riette.

6. Eg hlyt ad livoga þo eg hafe riett, Eg er so kvalenn af (a) sialfs miins Skeytum, þo ad eg hafe þar ongva forþienan til.

(a) (Sialfs mijns) Þad er, Guds Pijlur sem stande j mier.

7. Hvar er eirn þvilijkur sem Job, hann hvor ed jnndreckur Haadungena lijka sem Vatn?

8. Og geingur a Veigenum med þeim Illvirkiunum, og er j ferd med þvi Ogudlega Folkenu?

9. Þviad hann sagde, Þo einhvor sie enn Froomur, þa er hann þo sament einskis verdur fyrer Gude.

10. Þar fyrer þa hlyded mier þier Hyggnu Menn, Langt er fra þvi ad GUD hann skyllde Ogudlegur vera, og sa hinn Almaattuge Oriettferdugur.

11. Helldur so, hann launar Mannenum epter þvi sem hann hefur forþient til, og hitter u, pa hvorn eirn epter sijnum Giorninge.

12. Nan efa fordæmer GUD ongvann med Raangindum, og sa hinn Almaattuge beyger ecke Riettinn.

13. Hvor hefur tilskipad þad sem a Jordunne'er, og hvor hefur sett allt Jardrijked.

14. Þar sem hann villde og enn asetia sier þad, þa feinge hann vel samansafnad ollum Saalum og Ondum til sijn.

15. Allra Holld þad munde forganga hvort med odru, og Madurenn munde verda ad Osku aptur.

16. Hafer þu nu Skilningenn, þa hlydtu þvi, og hygg ad Raustenne minnar Ordrædu.

17. Skyllde nockur þar fyrer þvijnga Riettenn, þo ad hann sialfur hate hann? Og þo ad þu siert stolltur, skyllder þu þa þar fyrer fordæma hinn Riettferduga?

18. Skyllde nockur þad seigia til Konungsins, Þu Faafeingur Madur! og til Hofdingianna, Þier hiner Ogudlegu!

19. Hann þo sem * ecke alijtur Personur Hofdingianna, og ber ecke meire kiennslu a hinn Forkostulega, helldur enn a hinn Faatæka, Þviad þeir aller eru hans Handaverk.

* Giornb: Post: 10, 34.

20. Menn verda ad deya skyndelega, skelfast og forganga a Midnættenu, hiner Oflugu verda Maattlauser j burt tekner.

21. Þviad hans Augu sioa hvors Manns Vegu, og hann sier allra þeirra Footspor.

22. Þar er eingenn su Þoka, eda Mirkur, hvar ed Illvirkiarner kunne ad fela sig.

23. Þvi þad er ongvum leyfelegt ad ganga j Riettlætis Doom vid GUD.

24. Hann fyrerkiemur so morgum Stolltum, so ad þeir eru oteliande, og innsetur adra j stadenn þeirra.

25. Af þvi, ad hann þecker þeirra Verk vel, og umvender þeim a Naattar-tijma, so þeir verde j sundur slegner.

26. Þeim Ogudhræddu sleyger hann saman j eitt, þar ed þad verdur hellst sied.

27. Af þvi ad þeir viku j burtu fra honum, og skildu ecke neitt af hans Vegum.

28. So ad Kalled hinna Faatæku hlaut ad koma

koma fyrer hann, og hann heyrde þa Kveinan hins Naudþurftuga.

29. Hvonar ed hann giefur Fridenn, hvor vill þa fordæma? Og nær ed hann skyler Andlitenu, hvor mun þa gieta sied hann a medal Folksins og Alþijdunnar?

30. Og hann lætur eirn Hræsnara rijkia yfer þeim, til ad (b) þreyngia Almwganum.

(b) Hann lætur Tyranna og Vijkinga Völld hafa, til ad kvelia, plaga, og fiefletta þa undergefnu.

31. Eg hlyt ad tala uppa Guds vegna, og giet þad eige læted.

32. Hafe eg ecke hitt uppa riett, þa kienn þu mier betur, Hafe eg handterad oriettelegana, þa vil eg ecke leingur so giora.

33. Menn vænta Andsvarsins af þier, Þvi þu forleggur alla hlute, og þu hefur þad uppbyriad enn ecke eg, Ef þu veitst nockud, þa seig þu þad framm.

34. Þvi giarnan læt eg Hyggna Menn leidrietta mig, og eirn vijs Madur hlyder mier.

35. Enn Job hann talar ofskinsamlegana, og hans Ord eru ecke af Skilninge.

36. Minn Fader! Læattu Job reyndann verda allt til Æfeloka, fyrer þad hann snyr sier til Rangloatra Manna.

37. Hann hefur og umframm sijna Synd Guudlastad, Þar fyrer loat hann sleigenn verda a medal vor, og þad hann hafe so sijdann mikel onytiu ord vid GUD.

## XXXV. Capitule.

Elihu talar en framar vid Job um Guds Rettlæte.

Og Elihu svarade, og sagde.

2. Helldur þu þad fyrer Riettinde, ad þu seiger, Eg er Riettloatare enn GUD?

3. Þvi þu seiger, Hvor er sa ad neins sie verdur fyrer þier? Hvad hioalpar þier þad, þo eg giøre mig oan Syndar?

4. Eg vil svara þier einu Orde, og þijnum Vinum med þier.

5. Skoda þu Himenenn, og sioa þu, og hygg ad Skijunum, ad þau eru þier of-hoa.

6. Ef þu syndgast, hvad kannt þu vid Hann ad giora? Og ef þijnar Misgiorder eru margar, hvad kannt þu Honum ad giora?

7. Og þo ad þu siert Riettvijs, hvad kannt þu ad giefa honum? Eda hvad skal hann medtaka af þijnum Høndum?

8. Einum Manne lijka, sem þu ert, kann þijn Illska eitthvort ad giora, og þijn Riettvijse einn Manns Barne.

9. Þeir hiner somu meiga kalla, nær ed þa skier miked Ofrijke, og kveina yfer Armlegg þeirra enu Stooru.

10. Þeir ecke neitt skeyta um þad, Hvar er GUD minn Skapare, hann sem giorer þann (a) Saungenn a Noottenne?

(a) (Saungenn) Þad er Fugla Saung. Edur andlega maa þad skilia, so, ad Menn lofe hann j linstu og leidu, sem 42 Psalmur seiger, Um Nætur syng eg honum.

11. Hann hvor ed giorer oss lærdare enn þann Fienadenn a Jordunne, og hyggnare enn þa Fuglana under Himnenum.

12. Og þeir munu og eirnenn kalla yfer Drambsemenne þeirra hinna Illskufullu, og hann mun ei bænheyra þa.

13. Þviad GUD mun ecke hlijda þvi sem hiegomlegt er, og sa hinn Almoattuge mun ecke oalijta þad.

14. Þar ad auk þa seiger þu, ad ei muner þu hann sioa, Enn þar er eirn Domur fyrer honum, bijd þu hans ad eins.

15. Þo ad hans Reide sæke þig ei snarlega heim, og take sier þad so broadlega til, ad þar eru marger Hoadungar menn.

16. Þar fyrer hefur Job upploked sijnum Munne forgiefens, og frammbored Drambsom Ord med Skilningsleyse.

## XXXVI. Capitule.

Elihu helldur samt oafram i sinne Rædu vid Job, um Guds Rettlæte, Almætte og Speke.

Elihu talade enn framar meir, og sagde.

2. Bijd þu mijn enn litla stund, eg vil kunngiora þier þad, Þviad eg hefe enn nockud ad seigia af Guds oalfu.

3. Eg vil sækia mijna Skilnings Vitsku oaleingdar, og bijviisa um minn Skapara, ad hann sie Riettvijs.

4. Mijn Ordræda skal oan efa Falslaus vera, og mijn Skilnings vitska skal Lastalaus vera fyrer þier.

5. Sioa þu, GUD hann burt kastar ecke hinum Volldugu, hann er Volldugur wt af Hiartans Krapte.

6. Hann helldur ecke vid Magt hinum Ogudlega, helldur hioalpar hann hinum Foatæka til Riettarins.

7. Hann j burt snyr ecke sijnum Augum fra Riettferdugum, og hann lætur Konunganna sitia alla Æfe a sijnum Tignarstoolum, so þeir verda Vollduger.

8. Og hvar ad Fangarner liggia j Footabolltonum, og eru aumlega reirder med Reipum,

9. Pa kunngiorer hann þeim hvad þeir hafa adhafst, og þeirra Odygd, ad þeir hafa ysergangsamer vered.

10. Og hann opnar þeim Eyrad til Aga, og seiger þeim, ad þeir skule j burt snwa sier fra Roangletenu.

11. Ef þeir hlyda þvi og þioona honum, þa munu þeir gamler verda j Sælld, og lifa med Glede.

12. Enn ef þeir hlyda ecke, þa munu þeir falla j Sverd, og forganga fyrr enn þa varer þess.

13. Nær ed Reidenn hitter Hræsnarana þa kalla þeir ecke, nær þeir liggia j Fiotrunum,

14. Pa mun þeirra Soal med Kvalrædunum deya, og þeirra Lijf a medal Hoorunar Manna.

15. Enn þa Foatæku mun hann frelsa wt af þeirra Eymdar vesolld, og opna Voladra Eyru j Hormungenne.

16. Hann mun burt rickia þier wr þeim vijdu Kverkunum Kvalanna, sem øngvann Botn hafa, og þitt Matbord mun hafa hvijld, og fullt med allskins Giæde.

17. Enn þu fegrar Moalefned hins Ogudlega, so þeirra Moalefne og Riettur hellst vid Magt.

18. Hygg þu ad, Hvort ei hafe moatt so skie, ad Reidenn hafe komed þier til ad ploaga nockurn, Eda ad miklar Fiegiafer hafe ecke beygt þig.

19. Peinker þu, ad hann skeyte þinne Magt, edur Gulle, edur nockurskonar Stirkleik, edur Formegan.

20. Pu þarft ecke ad gyrnast Næturennar, til ad yfervinna Lydenn j þeirra stodum.

21. Vara þu sialfann þig, og snw þier ecke til Roangletesins, so sem þu uppbiriader fyrer þinnar Vesalldar saker.

22. Sioa þu, GUD er miog Ofurhoar j sijnum Krapte, Hvar er einn þvilijkur Kiennemadur sem hann er?

23. Hvor vill heimsækia hans Veg yfer honum? Og hvor vill so seigia til hans, Pu giorer roangt?

24. Hugleid þu, þad þu veitst ecke hans Verk, so sem Menn singia.

25. Pviad aller Menn sioa þad, og Foolked skodar þad oaleingdar.

26. Sioa, GUD er Mikell og Okienndur, hans Aaratolu kann eingenn ad rannsaka.

27. Hann giorer Vatned ad litlum Dropum, og hnepper sijn Skij saman til Regns.

28. So ad Skijenn fliota og drwpa miøg ofan yfer Mennena.

29. Pegar hann vill wtbreida sijn Skij so sem hoatt Tialld sitt,

30. Sioa þu, so wtbreider hann sitt Lios yfer þa hinu somu, og hylur allar Hafsins Endemerkur.

31. Pviad þar med hræder hann Mennena, og hann giefur þo gnoglega Fædslu.

32. Hann byrger Liosid so sem j Hondum sier, og skipar þvi þo aptur ad koma.

33. Um þad sama ber Vitne hans Samfielage, sem er Reidenn þeirrar Prumunnar j Skijunum.

# XXXVII. Capitule.

Elihu endar sijna Rædu vid Job.

Vidur þvi ognar mijnu Hiarta, og þad skielfist þar vid.
2. Kiære! Heyred þo hvorsu reid ad hans Reidarþruma hun er, og hvada Mᴏal þar geingur ut af hans Munne.
3. Hann sier under alla Himna, og Leiptrun hans skijn yfer Endemork Jardar.
4. Þar epter oskrar Reidarþrumann, og hann lætur Skruggur koma med sijnum miklum Hliodum, og nær ed hans Reidarþruma hun heyrest þa fær henne eingenn aptur hallded.
5. GUd hann dunar Ogurlega med sinne Reidarþrumu, og giorer mikla hlute, og verdur þo ecke becktur.
6. Hann mæler til Snioarins, þa kiemur hann jafnsnart a Jordena, og til Steiperegnsins, þa er Steiperegned þar med Magt.
7. Alla Menn hefur hann j sinne hende, so sem inneluckta, so ad Folked skal læra, hvad hann kann ad giora.
8. Þad Villudyred geingur jnn j sitt Hreyse, og blijfur j sijnum stad.
9. Af Sudrenu kiemur Vedur, og af Nordrenu Kuldenn.
10. Og ut af Guds Andardrætte kiemur Frosted, og miked Vatn, nær ed hann lætur þar hloana.
11. Þau enu þickvu Skijenn ad-skilia sig, so ad Heidbiart verdur, og hans Lioos skijn j giegnum þa Þokuna.
12. Hann snyr Skijunum hvort hann vill, so þau fullgiora a Jardrijke allt þad hann bydur þeim.
13. Hvort þad er helldur yfer Kinslekte, edur yfer einu Lande, þar sem hann finnst Miskunsamur.
14. Job! Merk þetta, Statt þu og hygg ad Guds Dᴏadsemdarverkum.
15. Veitst þu, Nær ed GUd sender soddan yfer þa? Og nær ed hann lætur Lioosed sinna Skija briootast hier framm?
16. Veitst þu, Hvornenn ad Skijenn utdreifa sier? Hvor Dᴏadsemdarverk þeir Fullkomnu vita.
17. So ad þijn Klæde eru þa vorm, nær ed Landed er kirrt af Sunnanvedrenu.
18. Jᴏa, þu munt utbreida Skijenn med honum, sem fost standa sem annar steyptur Sioonar speigell.
19. Seig þu oss, hvad vier eigum honum ad seigia, Þviad vier kunnum ecke ad nᴏa alla Gotu þangad fyrer Mirkrenu.
20. Hvor vill telia upp fyrer honum þad eg tala? Ef ad nockur talar þad, þa uppsvelgest hann.
21. Nu siest ecke þad Lioosed sem skiært skijn j Skijunum, Enn nær ed Vindurenn blæs, þa verdur þar biart Vedur.
22. Af Nordrenu kiemur (a) Gulled, þeim Ogurlega GUde til Lofs.
(a) (Gulled) Þad er skiært Vedur sem klaart Gull.
23. Enn þeir kunna ecke ad hondla hinn Almᴏattuga, sem so er Mikell af Kraptenum, Þviad hann mun ongvann Reikningskap standa af sijnu Riettdæme og goodu Mᴏalefne.
24. Þar fyrer meiga Menn ottast hann, og hann hrædest ongvann, hvorsu vijser sem þeir eru.

# XXXVIII. Capitule.

Drottinn talar til Jobs um sinn Mikla Krapt og Speke i Skopun, Vidhallde, og Stiorn Heimsins.

Og DROTTinn svarade Job, af einum Vindbil, og sagde.
2. Hvor er sa sem so skeikar j Vijsdomenum, og talar so med Oskinseme?
3. Umgyrd þijnar Lendar sem eirn Madur.
4. Eg vil adspyria þig, kienn þu mier. Hvar varst þu þa eg lagde Grundvoll Jardarennar? Seig þu mier þad, ef þu ert so mikell Skilnings Madur?
5. Veitst þu hvor ed sette hennar Matier?

Edur

Edur hvor ed droo þann Mæleþrcadenn yfer hana?

6. Eda hvar uppa hennar Fætur standa nidur sockter? Eda hvor ed lagde hennar Hyrningar Stein?

7. Pa ed Morgunstiornurnar hvor med annare lofudu mig, og oll Guds Born þau gloddu sig.

8. Hvor hefur tilluckt Sioafarhafed med sijnum Dyrum, þa ed þad brautst vt so sem af Modurkvide?

9. Pa ad eg klædde þad med Skijunum, og vafde þad j Þokunne so sem j odrum Reifum.

10. Pa ad eg braut þess Hlaup med mijnu Bode, og sette Steingur og Hurd þar fyrer.

11. Og sagde, Allt hingad ad skallt þu koma, enn ecke leingra, hier skulu þijnar stolltar Bylgiur leggia sig.

12. Hefur þu a þijnum Tijma boded Morgnenum, og vijsad Morgunstiornunne sinn stad?

13. So hun hondlade Hornenn Jardarennar, og þad hiner Ogudlegu yrde vtkastader?

14. Pad (a) Innsigled mun breyta sier so sem Leir, og þeir standa sem eitt Klæde.

(a) (Innsigled) þad er, þeirra Stiett og þeirra Hagur, hvorn þeir villdu so stadfastann vera laata, sem hann være innsigladur.

15. Og Liosed skal takast fra þeim Ogudlegu, og Armleggurenn hinna Drambloatu skal j sundur briootast.

16. Hefur þu ofan komed til Hassins Grunna, og geinged j Diwpsins Footsporum?

17. Hafa Daudans Port nockurn tijma opnad sig fyrer þier? Eda hefur þu sied Mirkranna Portdyr?

18. Hefur þu vækinia orded hvorsu breid Jordenn er? Seig þu framm, Veitst þu alltsaman þetta?

19. Hvar er sa Vegurenn þar Liosed bygger, og hvor er Mirkursins stadur?

20. So ad þu kunner burt ad taka þess Landamerke, og formerkia þann Farveigenn til þess Hwss.

21. Visser þu, ad þu skyllder a þeim Tijma fædast, Og hvorsu marger þijner Dagar skylldu vera?

22. Hefur þu þar vered hvadan ad Snioorenn kiemur? Eda hefur þu sied hvadan Hagled kiemur?

23. Hvoriu ad eg jnne helld til Hormungartijmans, og til þess Dags Strijdsins og Bardagans.

24. Um hvorn Veg skipter Liosed sier? Og uppfer sa Austanvindurenn a Jordena?

25. Hvor vtskipte Steypedoggenne sinna Raas? og giorde Veigenn Elldinganna og Reidarþrumanna?

26. So ad þar rigner j Landed, þar sem eingenn er, j þa Eydemorkena sem eingenn Madur er.

27. So þad uppfyller Eydemorkena og þau Dræfeun, og lætur Gras grooa.

28. Hvor er Daggarennar Fader? hvor hefur fædt Dropa Daggarennar?

29. Af hvors Kvide er Isenn vtgeingenn? Og hvor fædde Hrijmfrosted under Himnenum?

30. So ad Vatned verdur huled lijka sem under Steinum, og Diwped tillykst ad ofan.

31. Kannt þu þad Banded Siostiarnanna saman ad binda? Ellegar upp ad leysa þad Bellted þess Orions?

32. Kanntu ad laata Morgunstiornuna framm koma j sinn tijma? Eda ad færa þann Vagnenn af Himnenum yfer sijn Born?

33. Veitstu hvornenn þad Himenenn skal regerast? Eda kanntu ad kienna honum nockud a Jordu.

34. Kanntu þijnar Reidarþrumur ad flytia hatt upp j Skijenn? Edur mun sa Mikeleikenn Vatnsins hylia þig?

35. Kanntu ad laata þær Elldingarnar vt, so ad þær vt fare, og seige, Hier erum vær?

36. Hvor giefur Vijsdoomenn j þad (b) Leynda? Hvor giefur skinsamlegar Hugsaner?

(b) (Leynda) Þad er j Hiartad.

37. Hvor er so vijs ad hann kunne ad telia Skijenn?

38. Hvor

38. Hvör kann til ad dypta Himensins (c) Vatnsbelge? Pa ed þvi Duptenu verdur vtt-hellt, ad þad hleypur so tilsamans, og þad hvör Hnausenn loder vid annann.

(c) Þad er, Skijenn, hvör ad Vatnenu uthella svo sem adrer Vatns Belger, edur Vatns Kier.

# XXXIX. Capitule.

(I) Drottenn talar en framar til Jobs um Dasamlega Skickun og Stiorn sinna Jmislegra Skepna: Hverju Job svarar (II) med Vidurkenning sijns Veikleika og Vanvitsku.

I. Kanntu ad giefa Leonsinnunne þad hun veide sijna Braad, og ad metta þa Leons Hvölpana?

2. So ad þeir legge sig j sijnum stad, og hvijle sig j þeim Filsnunum sem þeir lvora?

3. Hvor tilreider Hrafnenum Fædslu, nær ed hans Ungar kalla til Guds, og flioga viller, þa þeir hafa ongva Fædslu?

4. Veitstu þann Tijmann nær Steingeiturnar bera a Fiollunum? Eda hefur þu gaad ad þvi nær Hindurnar ganga Kaalfbærar?

5. Hefur þu taled þeirra Maanude nær ed þær verda fullar? Edur veitst þu þann tijmann nær ed þær bera?

6. Pær beygiast saman nær ed þær bera, og sundur slijta sig, og þær vt laata sijna Kaalfa.

7. Þeirra Kaalfar verda feiter og næra sig af Kornenu, og ganga vt, og koma ecke til þeirra aptur.

8. Hvör hefur laated þau Villudyrenn ganga so sialfraada? Hvör hefur uppleyst Banded Villudyranna?

9. Hvörium ad eg hefe giefed Skoogenn til Hwss, og Eydemorkena til jbyggingar.

10. Pau spotta Haafadann j Borgunum, Kalled Jagarans heyra þau ecke.

11. Pau lijta til Fiallanna hvar ad þeirra Fæda er, og leita epter hvar grænt er.

12. Meinar þu þad Einhyrningurenn mune þiona þier? Og ad hann mune stadnæmast vid þinn Stall?

13. Kannt þu ad binda þitt Ok a hann, so ad hann erie upp þær Akurreynar, ad hann upprydie epter þier j Dalnum?

14. Maattu treysta uppa þad þott hann sie so sterkur, so þu skuler laata hann erfida fyrer þig?

15. Maattu trwa honum til þess ad færa þier þitt Sæde aptur, og inn ad safna j þijna Kornhlødu?

16. Paafuglsins Fiadrer eru fegre enn Vænger, og Fiadrer Storksins (edur Strutfuglsins.)

17. Hann sem lætur sijn Egg a Jordena, og lætur þa heitu Jordena vtklekia þeim.

18. Hann forgleymer þeim, ad þau mætte j sundur trodast, og þad eitt Villudyr mætte þau j sundur brioota.

19. Hann verdur so hardbyll vid sijna Unga, lijka sem þad hann ætte þa eige, og hann skeyter þvi ecke ad hann arfidar so til Forgefens.

20. Pviad GUD hefur svipt hann Vitenu, og vtdeilt honum ongvann Skilning.

21. Nær ed hann fer haatt upp þa forhefur hann sig, og hann skimpar bæde Hestenn og Mannenn.

22. Kanntu ad giefa Hestenum Stirkleika? Eda ad pryda Mackann a honum med hans Hneggian?

23. Kanntu ad hræda hann sem Grashoppur? Hvad sem hrædelegt er, þad er (a) Prijs fyrer hans Nosum.

(a) (Prijs) Hann er þess meir hugadur, frijs og olmast þa nockud hrædiligt er a ferdum, so sem er Strijd og Bardage.

24. Hann Footstappar a Jordena, og er offa frammgiarn med Stirkleik, og fer vt j mote þeim sem bryniader eru.

25. Hann hæder ad Hrædslunne, og skelfest ecke, og hann flyr eige fyrer Sverdenu.

26. Eirnenn þo þar klijnge j Pijlna-Koffrenu, j moote honum, og þo gliae bæde a Spioot og Lensur.

27. Hann hristest og æder og krafsar j Jordena,

12. Hans Tialld, j kringum hann, var
Myrkt, og svart þyck Skij, þar sem hann
var jnne hulenn.
13. Ut af þeim Glampanum fyrer hönum
twijstruduſt Skijenn, med Hagle og Leip-
tringum?
14. Og DROTTinn dunade j Himne-
num, Og Sa Hinn Hærste gaf ut sijna Pru-
mu med Hagle og Leiptring.
15. Hann skaut sijnum Geiſlum ut, og j
sundur dreifde þeim, Hann liet verda miklar
Elldingar, og hrædde þa.
16. Þa ſaaust Uppsprettuppytter Vatnan-
na, og Grundveller Jardarennar opnudu sig,
DROttinn! af þinne Straffan, ut af Anda
þinna Nasa og Blæstre.
17. Hann sende ut af Hædenne, og sockte
mig, Og droo mig burt wr miklum Vot-
num.
18. Hann frelsade mig fra sterkum Ovi-
num mijnum, Fra þeim ed mig hötudu,
hvorier mier voru Megtugre.
19. Þeir ed mig ofurlida báru, a minne
Hörmungar tijd, Og DROttinn var mitt
Huggunar-Traust.
20. Og hann leidde mig ut a vijdann Völl,
Hann rickte mier þar ut, þvi hann hafde
Lyst til mijn.
21. DROTTinn giörer vel vid mig, epter
mijnu (a) Riettlæte, Hann umbunar mier
epter Hreinferdugleika minna Handa.

(a) (Riettlæte) þad er, Eg hefe eckert biriad af Ofdyrfd, helldur hef eg halldid mier vid Guds Ord, þess vegna hef eg lidid þad eg skyllde lijda.

22. Þviad eg helld (b) Vegu DRottins,
Og breyte ecke ogudlega a moote mijnum
Gude.

(b) (Vegu) þad er Riettlætid sem hann talar hier um.

23. Þviad alla hans Dooma hefe eg mier
fyrer Sioonum, Og hans Bodordum fleyge
eg ecke j burt frá mier.
24. Helldur er eg án Flecks fyrer hönum,
Og bijvara mig frá Syndenne.
25. Þar fyrer endurgelldur mier DRot-
tinn epter mijnu Riettlæte, Epter Hreinferdug-
leika minna Handa fyrer hans Auglite.
II. 26. Hiá Heilögum ert þu Heilagur, og
hiá Froomun ert þu Froomur.
27. Og hiá Hreinferdugum ert þu Hrein-
ferdugur, og hiá rangsnwnum ertu rang-
snuenn.
28. Þviad þu hiálpar þvi Auma Folke,
Og nidur-þricker þeim háu Augum.
29. Þviad þu upplyser mitt Lioos, DRot-
tinn, Gud minn! Hann giörer mitt Mirkur ad
Birtu.
30. Þviad med Þier fæ eg Strijdsfoolked
vid Velle lagt, Og med mijnum Gude yfer
Mwrenn stocked.
31. Guds Veger eru fyrer utann Lyte,
Ord-Rædur DROTTins eru gagnhreinar,
Hann er eirn Hlijfdar-Skiolldur allra þeirra
sem a hann treysta.
32. Þviad hvar er eirn Gud utann DRot-
tinn? Eda eirn Frelsare utan Vor Gud?
33. Gud Bryniar mig med Krapte, Og
giörer mijna Vegu Flecklausa.
III. 34. Hann giörer mijnar Fætur álijka
sem Hiartarins, Og setur mig uppa mijna
Hæd.
35. Hann kienner mijnum Höndum ad
beriast, Og lærer mijna (c) Armlegge Stáls
bogann ad spanna.

(c) (Armlegge) Eitt Kopar Boge kann j sundur ad briotast af mijnum Armlegg.

36. Og þu giefur mier Skiöldenn þijns
Hiálpræðis, og þijn Hægre Hönd stirker
mig, Og nær ed þu audmijker mig þa miklar
þu mig.
37. Þu giörder under mier Gangrwm, so
þad mijner Öcklalider skridna ecke.
38. Eg vil sækia epter mijnum Ovinum, og
handtaka þa, Og ei aptur snwa, fyrr enn
þad eg hefe fyrerkomed þeim.
39. Eg vil þa nidursla, og þeir munu
mier ecke mootstödu veita, þeir hlioota under
mijnar Fætur ad falla.

40. Þu kannt med Krapte ad herklæda mig til Bardaga, Þu kannt under mig ad leggia alla þa sem setia sig upp a moote mier.

41. Þu giefur mier mijna Ovine a Flootta, Ad eg mijnum Haturs-Mønnum j sundur dreife.

IV. 42. Þeir kalla, og þar er sa eingenn þeim hiaalpe, Til DROTTins, enn hann andsvarar þeim ecke.

43. Eg vil melia þa so sem Molldardupt fyrer Vinde, Eg vil utskufa þeim lijka sem Saurendum a Strætum.

44. Þu hiaalpar mier j fra þvi Þraattunarsama Foolke, og giorer mig ad Hofde a medal Heidinna Pioda, þad Folk hvort eg þeckta ecke, þad þioonar mier.

45. Þad hlydde mier med hlydugum Eyrum, Ja, (d) þad braast þeim framande Bornum a moote mier.

(d) Edur so, þau annarligu Børninn afneitudu mier liugandi.

46. Hin annarlegu Born þau hiadna nidur, og fara (e) skalmande j sijnum Bondum.

(e) Edur so, Hrædast hardla miøg fyrer sijnum Fiøtrum.

47. DROTTinn hann lifer, og lofadur sie Frelsare minn, Og Gud mijns Hiaalpræðis skal upphafenn verda.

48. Sa Gud er mier giefur Hefndena, Og Foolked under mig leggur.

49. Sa ed frelsar mig fra Ovinum mijnum, og forhefur mig j burt fra þeim sem settu sig upp j moote mier, Þu hiaalpar mier j fra þeim hinu mootgiordasomu.

50. * Þar fyrer vil eg, DROTTinn! þier þacker giora a medal Heidinna Piooda, Og lofsyngia þijnu Nafne. * Rom. 15, 9.

51. Sa ed audsyner miked Hiaalpræde sijnum Konunge, og giorer vel vid sinn Smurda, David og hans Afkvæme eylijflega.

## XIX. Psalmur.

David talar (I) um Farsælann Framgang Evangelii, og (II) um þess Mikla Verdugleika.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

I. 2. Himnarner frammtelia Guds Dijrd, Og Festingenn kunngiorer Verk hans Handa.

3. Eirn Dagurenn seiger þad ødrum, Og hvor Nottenn kunngiorer þad annare.

4. Þar er eckert Tungumaal til, edur þær Munnrædur, hvar ed þeirra Radder heyrast ecke.

5. Um øll Lønd er þeirra * Mæleþraadur utgeingenn, Og þeirra Maal allt til Heimsins Enda, Solunne hefur hann Herberge sett j þeim sønn. * Rom. 10, 18.

6. Og hun geingur ut, lijka sem eirn Brwodgume ut af sijnu Herberge, Og gledur sig sem ein Hetia til ad hlaupa Veigenn.

7. A einum Enda Himensins kiemur hun upp, og rennur so umkring til hins sama enda, og eckert skylest fyrer hennar Hita.

II. 8. Logmaaled DROttins er Flecklaust, Og (a) endurnærer Saalena. Vitnisburdurenn DROTTins stendur fastur, Og giefur Vijsdom Skilningslitlum.

(a) Giefur aptur, og umsnijr Saalunni.

9. Skipaner DROTTins eru Riettferdugar, og gledia Hiartad, Bodordinn DRottins eru skiær, og uppbirta Augunn.

10. Otte DROTTins er Hreinferdugur og blijfur eylijflegana, DROttins (b) Riettur er Sannur, allur saman Riettferdugur.

(b) Doomar eru Sannleike.

11. Hann er kostulegre enn Gull og miked skiaarasta Gull, Hann er sætare enn Hunaang og Hunaangs-seimur.

12. Eirnenn verdur þinn Pioon fyrer hann (c) aaminntur, Og hvor ed vardveiter hann, sa hefur mikel Verdlaun.

(c) Upplystur.

13. Hvor kann ad formerkia hvorsu opt hann misgiorer? Fyrergief þu mier minn heimuglegann Brest!

14. Vardveit eirnenn þinn Pioon j fraa þeim Dramblaatu, so ad þeir drottne ei yfer

 mier,

mier, Pa mun eg Flecklaus verda, og Saklaus af Mikellre Misgiörd.

15. Lᴏat þier þocknast Ordrædur mijns Munns, og Mᴏaled mijns (d) Hiarta fyrer þier. DROttinn minn Frelsare, og minn Endurlausnare!

(d) Mijns Hiarta þancke.

## XX. Psalmur.

Bæn Undergefenna fyrer sijnum Yferbodnum.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. DROTTinn bænheyre þig j Neydenne, Nafned Guds Jacobs þad vernde þig.

3. Hann sende þier Hiᴏalp af Helgedoomenum, Og stirkie þig ut af Zion.

4. Minnugur sie hann alls þijns Matar Offurs, Og þijn Brennefoorn hliote feit ad vera, Sela.

5. Hann giefe þier þijna Hiartans Villd, og uppfylle allann þinn ᴏasetning.

6. Vier hroosum oss, ad Pu hiᴏalpar oss, og j Nafne Guds vors setium vier upp Strijdsmerkenn, DROttinn uppfylle allar þijnar Bæner.

7. Nu (a) formerke eg, ad DROttinn hiᴏalpar sijnum hinum Smurda, og Bænheyrer hann j sijnum Heilögum Himne, Hans hægre Hond hiᴏalpar kroptuglega.

(a) Þad er, Gud hlytur ad giefa Rᴏadid og Dᴏadina, vor Asetningur og Giörningar eru til einskes ellegar.

8. Peir hiner adrer treysta uppa Vagna og Hesta, Enn vier hugsum uppa Nafned DROttins Guds Vors.

9. Peir eru nidursleguer og fallner, Enn vier stondum riettir.

10. DROttinn hiᴏalpa þu! Konungurenn heyre oss, Nær vier hroopum.

## XXI. Psalmur.

Spᴏadomur um Sigur þann er Messias fenge yfer sijnum Ovinum.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. DROttinn! Kongurenn gledur sig j þijnum Krapte, Og hvad hardla gladur er hann ut af þijnu Hiᴏalpræde?

3. Pu giefur honum sijna Hiartans Villd, Og syniar ecke þess hvad hans Munnur beidest, Sela.

4. Pviad þu yferheller hann med Velsemdar Blessan, Koronuna af Gulle setur þu uppa hans Höfud.

5. Hann bidur þig um Lijf, og þu giefur honum langa Lijfdaga um Alldur og ad eylijfu.

6. Hann hefur stora Dijrd af þijnu Hiᴏalpræde, Pu leggur honum Vegsemd og Pryde til.

7. Pviad þu setur hann til Blessunar eylijflega, Pu gledur hann med Fognude þijns Andlits.

8. Pviad Konungurenn hann vonar uppa DRottinn, Og fyrer Giædsku Hins Hæsta mun hann stodugur standa.

9. Þijn Hond mun finna alla þijna Ovine, Pijn hin Hægre Hond mun finna þa ed þig hata.

10. Pu munt giora þa lijka sem Elldsins Ofn, þa þu lijtur þar til, DROttinn mun uppsvelgia þa j sinne Reide, Elldurenn mun uppeta þa.

11. Þeirra ᴏavoxt muntu tortijnast lᴏata af Jordu, Og þeirra Sæde j burt frᴏa Mannanna Bornum.

12. Pviad þeir þeinktu þier jllt ad giora, Og samsettu þær Rᴏadagiörder, hvoriar þeir feingu ecke frammkvæmt.

13. Pviad þu munt giora þa ad (a) Orlum, med þijnum Streing muntu til Hæfesmida moote þeirra Augsyn.

(a) (Orlum) Ad þeir bere jafnan og Olucku lijde.

14. DROTTinn! upp hef þig j þijnum Krapte, þa vilium vier syngia, og lofa þijna Magt.

## XXII. Psalmur.

Spᴏadomur um Messia (I) Pijsler, og (II) Dijrd.

Psalmur

Psalmur Davids fyrer ad syngia, Ut
af Hindenne, sem ꝏrla var veidd.

I. 2. * Gud Minn! Gud Minn! Hvar fyrer
hefur þu yfergiefed mig? Eg vei-
na, enn mijn Hiꝏlp er fiarlæg.
* Matth. 27, 46. Marc. 15, 34.

3. GUd minn! a Degenum kalla eg, og
þu giefur ecke andsvar, Og a Nottenne þeige
eg ecke eirnenn helldur.

4. Enn Þu ert Heilagur, Þu sem byr medal
(a) Lofgiørdar Jsraels.
(a) (Lofgiørdar) þad er Medal þess Heilaga Folks Jsraels, hvar þijn Lofgiørd jafnan er.

5. Vorer Fedur vonudu a þig, Og þa er
þeir vonudu þa hiꝏlpader þu þeim ut.

6. Til þijn kølludu þeir, og urdu frelsader,
Þeir vonudu a þig, og urdu ecke til Skammar.

7. Enn eg em Madkur, enn ei Madur,
Spott Mannanna, og Fyrerlitning Folksins.

8. * Aller þeir er mig sia hæda ad mier,
Opna sinn Munn, og skaka Høfudinn.
* Matth. 27, 39. Marc. 15, 29. Luc. 23, 35.

9. * Klage hann þad fyrer DROTTne,
hiꝏlpe hann honum, Og hann frelse hann,
hafe hann Lyst til hans. * Matth. 27, 43.

10. Þviad þu vtleidder mig af minnar
Modur Kvide, Þu varst mitt Hiꝏlpartraust
þa ed eg var enn nu a minnar Modur Brio-
stum.

11. Til þijn er mier kastad j fra Modur-
Kvide, Þu ert minn GUd allt sijdan j fra
minnar Moodurkvide.

12. Vert ecke fiærre mier, þviad Angist-
en er nꝏlæg, Af þvi hier er sa eingenn ed hiꝏlpar.

13. Stoor Naut umgyrdtu mig, Feiter
Uxar umkringdu mig.

14. Þeirra Gin opna þeir upp a moote
mier, Lijka sem grenianda og glefsanda Leon.

15. So sem annad Vatn em eg vthelltur,
Og øll mijn Bein hafa sundurskilest, mitt Hiar-
ta er j mijnum Lijkama sem brꝏdnad Vax.

16. Mijner Kraptar eru uppþornader, sem
onnur Skurm, Og mijn Tunga loder vid
mijna Gooma, og þu leggur mig j Daudans
Dupt.

17. Þviad Hundar hafa umkringt mig, Og
Hoopur þeirra Omilldu hafa setst um mig, *
Mijnar Hendur og mijnar Fætur hafa þeir j
giegnum grafed.
* Matth. 27, 35. Marc. 15, 24. Luc. 23, 33.
Joh. 19, 18.

18. Øll mijn Bein mꝏtte eg telia, Enn
þeir (b) horfa a þad, og sia sijna Villd a mier.
(b) Þeir svoludu þeirra Heipt og Akafa gede a mier.

19. * Þeir skiptu med sier mijnum Klæ-
dum, Og um mitt Fat vørpudu þeir Hlut-
skipte. * Matth. 27, 35. Joh. 19, 24.

20. Enn Þu, DROttinn! vert ecke Fiar-
lægur, Minn Styrkur, skunda Þu mier til
Hiꝏlpar.

21. Frelsa þu Saal mijna j fra Sverdenu
Og mijna þa hina Einsømu j fra Hundunum.

22. Frelsa þu mig vt af Gine Leonsins, og
hiꝏlpa mier j burt fra Einhyrningenum.

II. 23. * Þitt Nafn vil eg predika mijnum
Brædrum, J Samkundunne vil eg þig veg-
sama. * Ebr. 2, 12.

24. Lofed DROTTinn þier sem ottest
hann, Allt Sæde Jacobs dijrdke hann, og allt
Jsraels Sæde oottest hann.

25. Þviad hann hefur hvorke forsmꝏd nie
fyrerlited Eymd hins Fꝏtæka, og ecke sitt And-
lite birgt fyrer honum, og þa ed hann kallade
til hans, þa heyrde hann þad.

26. Þig vil eg lofa j þeirre hinne Miklu
Samkundu, Mijn Heit vil eg giallda j Aug-
syn þeirra sem hann oottast.

27. Hiner Voludu skulu Neyta, so ad
þeir Sadder verde, Og þeir sem ad DROttne
leita, munu lofa hann, Ydar Hiørtu skulu
lifa ad eylijfu.

28. Þar uppa munu þeinkia allar Ende-
Merkur Veralldarennar, ad snwa sier til
DROTTins, og fyrer hans Augsyn tilbidia
allar Kinkvijsler Heidinna Þioda.

29. Þviad DROttinn hefur eitt Rijke, Og
hann DROttnar a medal Heidinna Þiooda.

30. Aller (c) Feitingiar a Jordu munu
neyta og tilbidia, Fyrer honum munu Knie

 beigia

þeigia aller þeir sem liggia j Duptenu, Og þeir ed aumlega lifa.

(c) (Feitlngiar) þad eru þeir Rijku og Volldugu. Þeir sem ed j Duptenu liggia, eru þeir Lijtelmotlegu og Fatæku, sem ad lifa i Eymd og Vesølld, edur ad Daudanum eru komner. Aller þesser eiga ad ákalla Christum.

31. Hann mun eitt Sæde hafa, sem hønum þioonar, Af DROTTne mun þad kunngiort verda til Barna-Barnanna.

32. Þeir munu koma, og hans Riettvijse predika, Þvi Folke sem fædt verdur, ad hann giører þad.

## XXIII. Psalmur.

Spaadomur um hann Goda Hyrder Messias. Psalmur Davids.

* DROTTinn er Minn Hyrder, Mig mun ecke neitt bresta.

* Joh. 10, 11. 1 Pet. 2, 25. c. 5, 4.

2. Hann foodrar mig j grænum Haga, Og leider mig framm ad ferskum Votnum.

3. Hann endurnærer Saal mijna, hann leider mig a Riettanu Veg, fyrer sijns Nafns Saker.

4. Og þott ad eg raafade j Mirkvum Dal þa hrædest eg þo ongva Olucku, Þviad Þu ert hiaa mier, þinn Vondur og Stafur hugsvala mier.

5. Þu tilbyr Matbord fyrer minne Saalu, j giegn Ovinum mijnum, Þu smyr mitt Hofud med Vidsmiore, og skeinker fullt a fyrer mig.

6. Giædska og Miskunseme mun mier eptersilgia mijna Lijfdaga, Og eg mun bwa j Hwse DROTTins æfenlega.

## XXIV. Psalmur.

Spaadomur um Messias hann Konung Dijrdarennar.

Eitt Psalmur Davids.

* Jordenn hun er DROTTins, og hvad j henne er, Jardarkringlann, og hvad þar a byr. * 1 Cor. 10, 26, 28.

2. Þviad hann hefur grundvallad hana yfer Siooarhafenu, og yfer Votnunum tilbwed hana.

3. Hvor mun uppganga a Fialled Drottins? Og hvor mun standa j hans Heilaga Stad?

4. Sa ed hefur Meinlausar Hendur, og hann sem er Hreinhiartadur, Sa ed ecke hefur Lysting a hiegomlegum Lærdome, og hvøred sver ecke svikſamlega.

5. Sa hinn same hann mun medtaka Blessun af DROTTNE, Og Riettlæte af Gude sijns Hiaalpræðis.

6. Þetta er su Kinslood hvor ed ad honum spyr, Hun hvor ed leitar þijns (a) Andlitis Jacob, Sela.

(a) (Andlitis) þad er, Naavera og Kunnugleike Guds, hvor ed var a medal Jsraels Folks, enn hvorge annarstadar.

7. Latted Portinn vera vijd, og Dyrnar hooar j Verølldenne, So þad Kongur Dijrdarennar jnngange!

8. Hvor er sa Kongur Dijrdarennar? Þad er DROTTinn, Sterkur og Volldugur, DROTTinn Megtugur j Strijde.

9. Latted Portenn verda vijd, og Dyrnar hooar j Verølldenne, so þad Kongur Dijrdarennar jnngange.

10. Hvor er sa Kongur Dijrdarennar? Þad er DROTTinn Zebaoth, Hann er Kongur Dijrdarennar, Sela.

## XXV. Psalmur.

Bænar Ord Davids til Drottens (I) um Guddomlega Upplysning; (II) Um Fyrergefning Syndanna; (III) Um Frelsun fraa sijnum Syndum.

Psalmur Davids.

1. Til þijn DROTTinn! forleinger mig.
2. Minn Gud! a þig treyste eg, Lat mig ecke til Skammar verda, so ad Oviner mijner gledie sig ecke yfer mier.

3. Þviad eingenn verdur sa til Skammar sem þijn bijdur, Enn til Skammar hliota ad verda þeir hiner Fraanytu Forsmaanarar.

4. DRot-

4. DRottinn! vijsa þu mier þijna Vegu, Og lær mig þijna Footstigu.
5. Leid þu mig j þijnum Sannleika, og lær mig, þviad þu ert Gud, sem mier hiaalpar, daglegana vona eg a þig.
6. Minnstu DRottinn! þinna Miskunsemda, og þinnar Giædsku sem vered hefur fraa Upphafi Veralldarennar.
II. 7. Minnst þu ecke a Synder minnar Æsku, og a mijnar Yfertrodslur, Helldur minnstu mijn epter Miskunseme þinne, fyrer þinnar Goodgyrndar saker.
8. DROttenn er Goodur og Fromur, þar fyrer leidrietter hann hina Syndugu a Vegenum.
9. Hann leider hina Faaraadu riett, Og lærer þa Voludu sijna Vegu.
10. Aller Veger DROttins eru ecke utan Giædska og Sannleikur, þeim ed hans Saattmaala og Vitnisburde geyma.
11. Fyrer þijns Nafns saker, DRottinn! vertu lijknsamur Synd minne, hvor ed er Mikel.
12. Hvor er sa hann oottast DRottinn? þeim hinum sama mun hann vijsa þann besta Veg.
13. Saala hans mun bwa j þvi Gooda, Og hans Sæde mun Landed eignast.
14. Leynder Doomar DROttins eru medal þeirra sem hann oottast, Og sinn Saattmaala lætur hann þa vita.
III. 15. Mijn Augu lijta jafnann til DRottins, þvi hann mun mijna Fætur ut leida af Netenu.
16. Snu Þier til mijn, og vert mier Miskunsamur, þviad eg em Einmana og Faaraadur.
17. Sorg mijns Hiarta er mikel, Leid þu mig burt wr mijnum Naudum.
18. Lijttu a mijna Eymd og Armædu, Og fyrergief þu mier allar mijnar Synder.
19. Sioa þu a þad, mijner Oviner eru so marger, Og þeir hata mig ut af Moothroo-anlegleika.
20. Vardveit þu mijna Saalu, og frelsa mig, Laat mig ecke til Skammar verda, þviad eg treyste a þig.
21. Einfalldleike og Riettlæte vardveite mig, þviad Þijn bijd eg.
22. Gud! frelsa þu Jsrael, Af ollum sijnum Anaudum.

# XXVI. Psalmur.

Bænar-Ord Davids um Rett yfer sijnum Ovinum.

Psalmur Davids.

Laat Þu mig riett skie, DRottinn! þviad eg em Saklaus, Eg vona uppa DRottinn, þar fyrer mun eg ecke falla.
2. Reyn þu mig, DROttinn! og rannsaka mig, Hreinsa mijn Nijru og mitt Hiarta.
3. Þviad þijn Miskun er fyrer mijnum Augum, Og eg geing j þijnum Sannleik.
4. Eg sit ecke hiaa þeim Hiegoma-Monnum, Og eckert Samlag hef eg vid hina flaaraadu.
5. Eg hata Samkundu þeirra hinna Jllgiornu, Og sit ecke hiaa Ogudhræddum.
6. Eg þvæ mijnar Hendur med Sakleyse, Og helld mig, DRottinn! til þijns Alltaris.
7. Þar sem Menn heyra Raustena Packlætisins, Og þar Menn Predika af ollum þijnum Daadsemdum.
8. DROTTinn! eg elska Stadinn þijns (a) Hwss, og þañ Stad þar ed þijn Dijrd byr.

(a) (Þijns Hwss) Guds Hws og Samkundann er þar sem Guds Ord er kiennt, enn hvorge annarstadar, þviad þar byr Gud. Þar fyrer prijsar hann so gladlega Guds Hws, vegna Guds Ords.

9. Svipt ecke Saalu minne burt med þeim Syndugu, Og ecke helldur Lijfe mijnu medur þeim Blood-þyrstu.
10. Þeir sem umgangast med jllu Underferle, Og þeir þiggia giarnan Fiegiaafur.
11. Enn eg geing j Sakleyse, Frelsa þu mig og vert mier Miskunsamur.
12. Minn Footur geingur riettelega, Þig vil eg lofa, DROttinn! j Samkundunum.

# XXVII. Psalmur.

Davids Bæn (I) ad DRottinn villde vardveita hann; (II) Hallda hønum vid med sijnu Orde; og (III) geyma sig fyrer sinum Fiandmønnum.

Psalmur Davids.

I. DRottinn er mitt Lioos og minn Heilsugiafare, Fyrer Hvorium skal eg oottast? DROttinn hann er minn Lijfsins Kraptur, Fyrer hvorium skyllde eg hræddur vera?

2. Þar fyrer, þo ad hiner Hreckvijsu, mijner Mootstødu-Menn og Oviner vilie til vid mig, til þess ad eta mitt Holld, þa munu þeir þo oastenta sig og nidur hrynia.

3. Nær ad Herenn setur sig upp a moote mier, þa blosfrar ei ad helldur mijnu Hiarta, Nær ad Strijd hefst upp mier a moote, þa treyste eg a hann.

II. 4. Eins þa bid eg af DROttne, þad sama þæge eg giarnann, þad ad eg mætta blijfa j Hwse DROttins mijna Lijfdaga, Til ad skoda þa Agiætu Þionustugiord DROttins Guds, og ad vitia hans Musteris.

5. Þviad hann skyler mier j sinne Tialldbwd a þeim jlla tijmanum, Hann felur mig leynelega j sinne Tialldbwd, Og upphefur mig uppa Berged.

6. Og nu mun hann upphefia mitt Hofud yfer mijna Ovine, sem j kring um mig eru, þa vil eg og j hans Tialldbwd Lofgiørdenne offra, Eg vil syngia og Lof segia DROttne.

7. Heyr þu DROttinn! mijna Raust, nær ed eg kalla, Miskuna þu mier og bænheyr mig!

8. Mitt Hiarta þad setur þier þijn Ord fyrer, þier skulud mijns Andlitis leita, þar fyrer leita eg eirnenn, DRottinn! þijns Andlitis.

9. Byrg ecke þitt Andlit fyrer mier, og j burt ref ecke Þræl þinn j Reide þinne, þvi þu ert mijn Hialp, Yfergief þu mig ecke, og tak ecke þijna Hond fra mier, Gud minn Frelsare!

10. Þviad Fader minn og Moder mijn þau yfergoafu mig, enn DROttinn annadest mig.

11. Vijsa þu mier, DROttinn! þinn Veg, og leid mig a Riettann Gøtustijg, Vegna minna Ovina.

III. 12. Ofurgief mig ecke j Villd minna Ovina, þviad Falsvottar standa a moote mier, og giora mier rangt til oan Blygdunar.

13. Enn eg true þad þo, ad eg mune sioa Godsemd DROttins, a Jordu (a) Lifande (Manna.)

(a) (Lifande Manna) þad er þeirra sem vel geingur.

14. Bijd þu DROttins, vert Hraustur, og Oefadur, og bijd DRottins!

# XXVIII. Psalmur.

David bidur (I) til DRottens mote Hreckvijsse hinna Ogudlegu; (II) þackar DRottne fyrer Frelsun fraa Hreckvijsse Ogudlegra.

Psalmur Davids.

I. Nær eg kalla til þijn, DROttinn minn Styrkur! þa þeig ecke vid mier, So ad eg verde ecke, ef ad þu þeiger, lijkur þeim sem ofann fara j Grofena.

2. Heyr þu Rodd minnar Groatbeidnar, nær eg kalla til þijn, þa ed eg upphef mijnar Hendur til þijns Heilaga Chors.

3. Drag mig ecke j burt a medal þeirra Ogudlegu, og a medal Illvirkianna, þeir ed soattsamlega mæla vid sinn Noaunga, enn hafa hid Vonda j Hiartanu.

4. Gior þeim epter þeirra Tilverknade, og epter þeirra illskusamlegre Breytne, Gief þeim epter Handaverkum þeirra, Bitala þeim hvad þeir forþienad hafa.

5. Þviad þeir vilia ecke akta verkenn DROttins, og eige helldur hans Handaverk, þar fyrer mun hann nidur brioota þa, og ecke upp byggia þa.

II. 6. Lofa-

11. 6. Lofadur sie DROttinn, þvi hann hefur heyrt Rodd minnar Grætbeidne.
7. DRottinn er minn Stirkleike, og minn Skiolldur, A hann vonar mitt Hiarta, og eg em hoolpenn, Og mitt Hiarta er gladvært, og med mijnum Lofsøng vil eg honum þacker giora.
8. DROTTinn er Stirkleikur þeirra, Hann er sa Stirkleikurenn, sem ad hiaalpar sijnum Smurda.
9. Hiaalpa þu þijnu Folke, og blessa þijna Arfleifd, Og gief þeim Fædslu, og upphef þaa eylijflega.

## XXIX. Psalmur.

David talar um Krapt Guds Ords.

Psalmur Davids.

Giefed hingad DROttne, þier Vollduger, Færed hingad DROttne Dijrdena og Stirkleikann.
2. Færed DROTTne Dijrdena hans Nafns, Tilbidied DROTTinn j Heilagre Prydе.
3. Raustenn DROttins geingur yfer Votnenn, Gud Dijrdarennar lætur Reidarþrumurnar slaa, DROttinn yfer miklum Votnum.
4. Rodd DROttins geingur med Krapte, Rodd DROttins fer vegsamlega.
5. Raustenn DROttins hun j sundur brytur Cedrusvidenn, DROttinn hann j sundur brytur Cedrustrien j Libanon.
6. Og lætur þau stockva upp sem annann Kaalf, Libanon og Sirion sem ungann Einhyrning.
7. Raustenn DROTTins hun hoggur sem Elldsloge.
8. Raustenn DROTTins hrærer Eydemorkena, Raustenn DROTTins hrærer Eydemorkena Kades.
9. Raustenn DROTTins (a) hrærer Hindurnar, og sneyder Skogana, Og j hans Mustere mun honum hvor sem eirn Dijrd seigia.

(a) Kiemur Hindunum til ad fæda.

10. DROTTinn hann situr til ad giora Vatnsflooded, Og DROTTinn hann blijfur Kongur ad eylijfu.
11. DROTTinn mun giefa Krapt sijnu Foolke, DROTTinn hann mun blessa sitt Foolk med (b) Fride.

(b) Pad er, ad honum vegne vel, og hann hafe Nægd allra Naudsynlegra Hluta.

## XXX. Psalmur.

Þackargiord Davids fyrer Guds Giædsku i Krosse og Hørmungum.

Psalmur til ad syngia fyrer, um Davids Hwssvijgslu.

2. Eg prijsa þig, DROTTinn! þviad þu hefur upphafed mig, Og þu lætur ecke mijna Ovine fagna yfer mier.
3. DROTTinn Gud Minn! þa eg kallade til þijn, þa giorder þu mig heilbrigdann.
4. Þu DROTTinn! hefur mijna Saalu utleidt af Helvijte, Og þu lietst mig lifa þar ed hiner fooru til Helvijtis.
5. Þier Heilager, synged Lof DROTTne, þacked honum, og prijsed hans (a) Helgedoom.

(a) (Helgedoom) þad er, Predika ad Gud sie ei Gud Hræsnaranna, so sem ad þeir hroosa, helldur ad hann sie Heilagur, og elske þa Sannheiløgu, Psal. 18. Med Heiløgum ertu Heilagur.

6. Þvi hans Reide varer um Augabragd, og hann hefur Lysting til (b) Lijfsins, um Kvolldtijmann varer Grætturenn, enn ad Morgne dags Fognudurenn.

(b) (Lijfsins) Hann gyrnist ecke Gløtunina, svo sem Menn ætla j Pijnunne, helldur Lijfed.

7. Enn eg sagde, þa ed mier gieck vel, Eg munde alldrei under liggia.
8. Þvi þu DROttinn! veitter Stadfestu mijnu Biarge med þinne Nocknan, Enn þa ed þu byrgder þitt Andlit, giordest eg skielfdur.
9. Eg vil, DROTTinn! kalla til þijn, DROTTinn vil eg grætbæna.
10. Hvør Nytsemd er ad mijnu Bloode,

þa eg em daudur? Hvort mun Molldenn nockud þacka þier, og boda þinn Truleika?

11. Heyr þu, DROTTinn! og vert mier Miskunsamur, DROTTinn! vertu minn Hiaalpare.

12. Minne Sorgarklogun hefur þu snued j Dans, þu hefur minn Hriggdar Seck j sundurslited, og umgyrdt mig med Fagnade.

13. So þad mijn (c) Dijrd synge þier Lof, og þagne ecke, DROTTinn Gud Minn! ad eylijfu vil eg þier þacker giora.

(c) (Dijrd) mijn Tunga og Harpa, med hvørre eg vegsama þig.

# XXXI. Psalmur.

Davld kenner ad Vonenn verde ecke til Smaanar i Neydenne.

Psalmur Davids til ad syngia fyrer.

2. A þig, DROTTinn! treyste eg, laat mig alldrei til Skammar verda, frelsa mig þijns Riettlætis vegna.

3. Hneig þitt Eyra til mijn, Skiootlega þa hiaalpa þu mier. Vert mier oruggt Biarg og Vijge, so ad þu hiaalper mier.

4. Þviad þu ert mitt Biarg, og mitt Vijge, Og fyrer þijns Nafns Saker þa leid þu mig og stijr mier.

5. Utleid þu mig af Netenu, sem þeir hafa lagt fyrer mig, þviad þu ert minn Stirkur.

6. * J þijnar Hendur fel eg minn Anda, þu hefur frelsad mig, DROttinn! þu Trwfaste Gud! *Luc. 23, 46.

7. Eg hata þa sem hallda ut af (a) Onytsamlegum Kienningum, Enn eg vona a DROTTinn.

(a) Onytsamlegar Ligar.

8. Eg gled mig, og em gladvær yfer þinne Miskunseme, þviad þu aalijtur mijna Eymd, og þecker Saalu mijna j Neydenne.

9. Og þu ysergafst mig ei j Ovina Hendur, þu setter mijnar Fætur þar þeir hafa noog Rwm.

10. Vert mier Naadugur, DROttinn! þviad eg kvelst, Mitt Yferbragd er nidur hruned af Harme, þar ad auk mijn Saala og minn Kvidur.

11. Þviad mitt Lijf er ut af Hriggdenne ad Þrotum komed, og mijn Aaratala af Andvarpan. Minn Kraptur er nidur-fallenn fyrer minna Misgiorninga saker, og mijn Bein þau eru (b) Maattlaus ordenn.

(b) J giegnum stunguenn.

12. So jlla þa geingur mier, ad eg em mikel Smaan ordenn mijnum Naagrønnum, og Vidbioodur mijnum Kunningium, þeir ed mig sia wt a Strætunum flyia fyrer mier.

13. Mijn er forgleymt j Hiartanu, lijka sem Frammlidens, Eg em ordenn so sem annad sundurbroted Kier.

14. Þviad marger aalasa mier jlla, so þad hvor Madur stuggar vid mier, þeir bera sijn Raad til samans yfer mier, og þeinkia mig Lijfe ad svipta.

15. Enn eg vona a þig DROTTinn, og seige, Þu ert Minn Gud!

16. Mijner Tijmar standa j þinne Hende, Frelsa þu mig af hende Ovina minna, og j fraa þeim sem offsækia mig.

17. Laattu þitt Andlit skijna yfer Þræle þijnum, Hiaalpa þu mier þinnar Miskunnar vegna.

18. Laat þu mig ecke, DROTTenn! til Skammar verda, Þviad eg aakalla þig, Hiner Ogudhræddu hliota til Skammar og nidurþaggader ad verda j Helvijte.

19. Maallauser verda þeir Falsfuller Munnar, þeir ed hardlega hofmoodugt og forsmaanarlega tala j mote þeim hinum Riettferduga.

20. Hvorsu mikel er þijn Goodgyrne, hvoria Þu hefur geymt þeim sem þig oottast, Og veiter þeim sem treysta a þig j Mannanna Auglite!

21. Þu byrger þa heimuglega hiaa þier fyrer hvors manns Þack, þu felur þa j þinne Tialldbwd, fyrer þeim Þrætusomum Tungum.

22. Lofadur sie DROttinn, þviad hann hefur audsyndt mier Dasamlega Goodgyrne j einum Oruggum Stad.

23. Þvi eg sagde j minne (c) Efaseme, Eg em j burtdrifenn fra þijnum Augum, þo heyrder þu Rodd minnar Grætbeidne, þa eg kallade til þijn.

(c) Þa eg flytte mier, snøggliga flyde.

24. Elsked þier DROTTenn aller hans Heilager, DROTTinn hann verndar þa hina Riettrwoudu, Og endurgielldur þeim rijkuglega sem Dramblæted tijdka.

25. Vered Hrauster og Hugdiarfer, þier aller sem DROTTins (d) bijded.

(d) Voned a DROTTinn.

## XXXII. Psalmur.

David talar um Rettlætingena.

Undervijsun Davids.

1 Sæler eru þeir hvorium Yfertrodslurnar eru fyrergiefnar, þeir hvorra Synder ad eru huldar. Rom. 4,7.

2. Sæll er sa Madur hvorium DROttinn tilreiknar ecke Syndena, j hvors Anda þad eingenn Flærd er.

3. Þvi þa eg villde hafa (a) þagad þa urdu mijn Bein Mattlaus, af minne daglegre Veinan.

(a) (Þagad) þad er, þa eg villda ecke medkienna, þad med mier være ecke utan Synd, þa hafde mijn Samvitska øngva Roo, þar til eg blaut ad medkienna þad, og trua og treysta alleina uppa Guds Giædsku. Esa.65,24.

4. Þviad þijn Hond var Noott sem Dag þung yfer mier, So ad mijn Vokvan upp þornade, so sem a Sumar þornar, Sela.

5. *Þarfyrer medkienne eg þier mijnar Synder, og dreg ecke Dulur a minn Misgiørning. Eg sagda, Jaata vil eg DROttne mijnar Yfertrodslur, þa fyrergafstu mier þann Misverknad minnar Syndar, Sela.

*1Joh 1,9.

6. Þar um munu aller Heilager þig bidia, j hagkvæmann Tijma, þar fyrer nær ed Floded mikellra Vatna þad kiemur, þa nager þad hvorge til þeirra hinns somu.

7. Þu ert mitt Athvarf, vardveit mig fyrer Angist, ad eg frelsadur med ollu Gladvær kunne ad prijsa þig, Sela.

8. Eg vil undervijsa þier, og vijsa þier þann Veigenn sem þu aatt ad ganga, Eg vil med mijnum Augum leida þig.

9. Vered ecke so sem Hestar og Mular, j hvorium þad eingenn Skilningur er, (b) Hvorium Menn verda Beisl og Bitil j Munn ad leggia nær ed þeir vilia ecke til þijn.

(b) (Hvorium) Hvoria Menn verda ad þvinga med Beisle og Taumum, ad þeir kome þier ecke øfnær.

10. Sa hinn Ogudhrædde hefur margar Plagur, Enn hvor ed vonar a DROttinn þann sama mun Miskunseme umkringia.

11. Gledied ydur j DROTTne, og vered glader, þier Riettlaater, og hroosed þaraf aller þier Froomer.

## XXXIII. Psalmur.

Þackargiørd Davids fyrer allskonar Lijkamlega Velgiørninga þegna af Gude.

Gledied ydur þier Riettlaater j DROttne, þeir Froomu skulu lofa hann fagurlegana.

2. Þacked DROttne med Horpum, og Lofsynged honum a Tiju Streingia Psalltara.

3. Synged honum nyann Dickt, og stilled honum þad Hlioodfære vel med Hlaakvæde.

4. Þviad Ord DROTTins er Sannarlegt, Og hvad hann lofar, þad efner hann Vissulega.

5. Hann elskar Riettvijsena og Doomenn, Jordenn hun er full af Miskun DROttins.

6. Himenenn er fyrer Ord DROTTins giordur, Og fyrer Anda hans Munns allur hans Her.

7. Hann helldur Vatnenu til samans j Sioonum, so sem j odrum Belg, Og leggur Underdiwpenn j Leynd.

8. Oll Verolldenn hun oottest DROttinn, Og fyrer honum hrædest allt hvad a Jordunne bygger.

9. Þviad so sem hann seiger, so skiedur þad, so sem hann bijfalar, so stendur þad þar.

10. DROTTinn hann Onytar giorer Raadagiorder hinna Heidnu, Og umsnyr Hugsunum Foolksins.

11. Enn Raad DROTTins þad blijfur eylijflegana, Hans Hiartans Hugsaner um Alldur og Æfe.

12. Sæl er su Þiood, hvorrar Gud þad DROTTinn er, Og þad Foolk hvort hann hefur sier til Arfleifdar utvaled.

13. DROTTinn hann lijtur af Himne ofann, og sier oll Mannanna Born.

14. Ut af sijnu Fostu Tignar Sæte lijtur hann yfer alla, þa sem a Jordunne byggia.

15. Hann (a) hneiger allra þeirra Hiortu, Hann hyggur ad allra þeirra Verkum.

(a) Allar þeirra Hugsaner beyger hann og hneiger epter sijnum Vilia.

16. Konungenum stodar ecke sitt hid mikla Magtar Vellde, Og Risenn hann hiaalpast ecke fyrer sinn mikla Mannskap.

17. Hestarner hiaalpa og ecke, og þeirra hid mikla Afl þad frelsar ecke.

18. Sia þu, Augu DROTTins lijta a þa sem hann oottast, þa sem vona uppa hans Miskunseme.

19. So hann frelse þeirra Saaler vr Daudanum, og giefe þeim Fædslu j Hallærenu.

20. Saala vor hun vænter DROttins, Hann er vor Hiaalp og Hlijfdar Skiolldur.

21. Þviad j honum glediast vor Hiortu, Og vier vonum a hans hid Heilaga Nafn.

22. Þijn Miskun, DROTTinn! hun sie yfer oss, Epter þvi sem vier vonum a þig.

## XXXIV. Psalmur.

Þackargiord Davids fyrer Allskonar Andlega Blessan þegna af Gude.

Psalmur Davids, þa ed hann breytte Andlite sijnu fyrer Abimelech, hvor ed rak hann fra sier, og hann foor burt.

2. Alla Tijma vil eg lofa DROTTinn, Hans Lofgiord skal ætijd vera j mijnum Munne.

3. Mijn Saala skal hrosa sier j DRottne, Svo þad heyre hiner Faatæku og gledie sig.

4. Vegsamed þier DROTTenn medur mier, Og laatum oss, hvorn med odrum, upphefia hans Nafn.

5. Þa ad eg leitade DROTTins andsvarade hann mier, Og frelsade mig ut af allre minne Hrædslu.

6. Þeir ed aa hann lijta, og til hans (a) skunda, þeirra Augsion verdur ecke til Skammar.

(a) (Skunda) þeir sem þreyngia sier til hans, so sem þeir villdu yferfalla hann med Magt, Eins og su Kvinna giorde vid Domarann, Luc. 18, 3 Edur eins og þa eitt Vatn rennur j eina Aa, og streymer framm, þvi hann lijdur giarnan, ad Menn leiti/ klappi a, og hæreysti med Bænneni aan Aflaats.

7. Þa hinn Faatæke kallade þa heyrde DROTTenn, Og hiaalpade honum ut af allre sinne Anaud.

8. Eingell DROTTins hann setur Herbuder j kringum þa sem hann ottast, Og hiaalpar þeim þadann.

9. Smacked þier og siaaed, Hvorsu DROttinn hann er Liufur, Sæll er sa hvor ed a hann treyster.

10. Ottest DROttinn þier hans Heillager, þviad þeir sem hann ottast hafa ongvann Brest.

11. Hiner Rijku munu vid þurfa og Hungur lijda, Enn þeir sem leita DROttins munu ongvann Skort hafa a neinu Godu.

12. Komid hingad Born, hlijded mier, Otta DROttins vil eg kienna ydur.

13. * Hvor er sa Madur sem gyrnest Lijfid? og giarnann vill hafa gooda Daga?

* 1 Pet. 3, 10.

14. Vara þu þijna Tungu j fraa Illu, og þijnar Varer, so ad þær tale ecke Flærd.

15. (b) Laat af illu og gior hid goda, Leita Fridarins, og sæk epter honum.
(b) Þad er, Flÿ Fals-Lærdoom, og gior odrum til goda, og vert þolinnmodur.

16. Augu DRottins lijta a hina Riettlaatu, og hans Eyru a þeirra Kall.

17. Enn Andlit DRottins stendur yfer þeim sem illa giora, So þad hann j burt ræte þeirra Minning af Jordunne.

18. Nær ed hiner (Riettlaatu) (c) Kalla, þa heyrer DRottinn þad, og hiaalpar þeim ut af allre þeirra Anaud.
(c) (Kalla) Ad Menn ackta þa einskis leingur.

19. DROTTinn hann er naalægur þeim sundurknosader eru j Hiarta, Og hiaalpar þeim sem (d) sundursleiged Sinne hafa.
(d) Sundursleigenn Anda.

20. Sa hinn Riettlaate hlytur margt ad þola, Enn DROTTinn frelsar hann af þvi ollu saman.

21. Hann forvarar oll hans Bein, so ecke eitt af þeim j sundur brotnar.

22. Ogiæfann hun mun drepa hinn Ogudlega, og hiner sem hata þann Riettlaata þeir munu (e) seker verda.
(e) (Seker) þad er, þeir munu fordiarfast lijka sem þeir Seku.

23. DRottinn hann frelsar Saaler sinna Þioonustumanna, og aller þeir ed a hann treysta, munu Sykn-saka verda.

# XXXV. Psalmur.

Spaadomur um Grimmleika þeirra er væru Fiandmenn Messiæ.

Psalmur Davids.

Þraatta þu DRottinn! vid þa sem vid mig
þraatta, Berstu vid þa sem j moote
mier beriast.
2. Þrijf þu Skiolldenn og Vopned, og
tak þig upp mier til Hiaalpar.
3. Reid þu til Spiooted, og ver mig j
moote mijnum Offsooknurum, Seig þu til
minnar Saalar, Eg em þijn Hiaalp.
4. Skammest þeir sijn og verde Saarar
sem stunda epter minne Saalu, Snue þeir
a bak aptur og til Skammar verde, sem
mier vilia til vonda.
5. Verde þeir sem Fis fyrer Vinde, og
Eingell DRottins hann burt hrinde þeim.
6. Þeirra Vegur hann verde mirkur og
haall, Og Eingell DRottins hann offsæke þa.
7. Þviad þeir hafa fyrer ongva Sok lagt
sitt Net mier til Fordiorfunar, Og hafa aan
Saka minne Saalu Grofena tilbued.
8. Oforvarandis verde hann yferfallenn,
og þad Neted sem hann hefur lagt veide hann
sialfañ, og verde hann þar med (a) yferfalleñ.
(a) Þeir falla þar j, so þeir eydeleggist.
9. Enn mijn Saala hun gledie sig j
DRottne, og sie gladvær j hans Hiaalp.
10. Oll mijn Bein þau meiga vel seigia,
DRottinn! Hvor er þier lijkur? Þu sem
frelsar hinn Volada j fraa þeim sem honum
yfersterkare er, og þann hinn Faatæka og Faa-
raada j fraa þeim sem hann ræner.
11. Þar geingu upp Illvilieger Vottar,
og vitnudu (b) þad a mig sem eg var ecke
valldur.
(b) Og spurdu mig ad þvi sem eg visse ecke.
12. Þeir giora mier illt fyrer gott, Ad
koma mier j (c) Hiartans Sorg.
(c) Þad er, Eins og mijn Saal skyllde vera yfergie-
finn og einskis oktud, Eins og ein Ecckia, edur sem
onnur Obyria.
13. Enn eg, þa ed þeir voru siuker, klæd-
dest Sorgarbuninge, þvingande mig med Fo-
stum, og ut af Hiarta þa badst eg fyrer.
14. Eg hiellt mig sem være hann Vinur
minn og Brooder, Eg gieck hlioodur, lijka
sem sa ed syrger sijna Modur.
15. Eñ þeir gloddu sig yfer mijnum Skada
og taka sig saman, Hiner (d) Holltu sofnu-
dust saman a Moote mier aan minnar Sakar,
þeir hrissa og laata ecke af.
(d) (Holltu) þeir ed halltra a baadar Fætur, laa-
tast þioona Gude, enn þiona þo og so Dioflenum
1 Kong. B: 18, 26.
16. Medur Smiodrurum og Haadgior-
num

num Mønnum Bukſins vegna, bitu þeir ſij-
num Tonnum til ſamans yfer mier.

17. DRottinn! Hvørſu leinge villtu ſioa
uppa þad? Frelſa þu þo mijna Soal j burt
froa þeirra Harke, og mijna þa Einſømu froa
þeim ungu Leonum.

18. J þeirre hinne Miklu Samkundu vil
eg þier þacker giora, og a medal mikels
Foolksfiolda vil eg loſa þig.

19. Loattu þa ecke gledia ſig yfer mier,
ſem eru mijner Oviner oan Saka, edur ſpotta
mig med Augunum, ſem mig hata* fyrer
øngva Søk. *Joh. 15, 25.

20. Þvi þeir aſtunda Skada ad giora, og
leita falſkra Saka j mote þeim (e) kirrloatu
j Landenu.

(e) (Kirrloatu) Þeim ſem giarnan villdu hafa
Fridinn.

21. Þeir uppſperrtu ſinn Munn vijdt a
moote mier og ſeigia, Sioa þar, Sioa þar, þad
ſioaum vier giarnann.

22. DRottinn! Þu ſier þad, þeige þu ecke,
DRottinn vertu mier ecke fiarlægur.

23. Uppvek þig og vakna til mijns Riet-
tar, og til mijns Moalefnes, Minn Gud og
DRottinn!

24. DRottinn Gud Minn! dœm þu mig
epter þijnu Riettlæte, So ad þeir gledie ſig
ecke yfer mier.

25. Loat þa ecke ſeigia j ſijnu Hiarta, Sioa
þar, þad vilium vier! Loattu þa ecke þad
ſeigia, Vier hofum uppſvelgt hann.

26. Skammeſt þeir ſijn og ad Skømm
verde þeir aller ſem gledia ſig af mijnum
Oforum, Med Skømm og Forſmoan verde
þeir klædder, ſem hrooſa ſier a moote mier.

27. Fagne og gledieſt þeir, ſem mier un-
na ad eg hallde Riettenum, og þeir ed ætijd
ſeigia, DRottinn ſkal vera hoatt Loſadur, ſa
ed ſijnum Þioon vill vel.

28. Og mijn Tunga ſkal tala um þitt
Riettlæte, og prijſa þig daglegana.

## XXXVI. Pſalmur.

(I) Kløgun Davids yfer þeim Ogudlegu; (II) Huggun Gudhræddum til Handa.

Pſalmur Davids, DROttins Þionuſtu-
Manns, til ad ſyngia fyrer.

I. 2. Þad er ſagt af mijnu Hiartans (a)
Grunne um Athæfe þeirra Ogud-
legu, þar er eingenn Guds Otte hioa þeim.

(a) (Grunne) Þa eg a ad tala Sannleikann grant-
kanlega og af Grunne, þviad þeir Ogudlegu ſynaſt
ad vera gooder og heilager, og eru þo j Grunne
Hiartans Falſker.

3. Þeir fegra ſig ſioalfer ſijn a mille, ſo
ad þeir framınkome ſijnu Vonda Moalefne,
og umſnue annara.

4. Allur þeirra Lærdoomur er Skadſamur
og Logenn, þeir loata ecke leidrietta ſig ad
giora nockud gott.

5. Helldur hugſa þeir j (b) Hvijlum ſij-
num um Skadſemena, og ſtanda faſter a þeim
Illſku-Vege, og fordaſt ecke illt.

(b) (Hvijlum) Þad er Oafloatanlega, og hafa øngva
Hvijld.

II. 6. DRottinn! Þijn Miſkunſeme tekur ſo
vijdt ſem Himenenn er, og þinn Sannleikur
ſo vijdt ſem Skijenn þau ganga.

7. Þitt Riettlæte ſtendur lijka ſem (c)
Fialled Guds, og þijner Domar ſo ſem mi-
ked Reigenn Diup, DRottinn! þu hioalpar
hvørutveggium, bæde Mønnum og Fienade.

(c) (Fialled) Þad er, Stoduglega, So þad kunne
ecke um Koll ad kaſtaſt.

8. Gud! Hvørſu dyrmæt ad er þijn Mi-
ſkun, ſo þad Mannanna Børn hafa Trauſt
under Skugga þinna Vængia!

9. Þeir verda druckner af Nægdar-Gotſe
þijns Hvoſs, og þu dryckiar þa med Vellyſ-
ſtingu ſo ſem med rennande Vatne.

10. Þviad hioa þier er Lifande Uppſpretta,
og j þijnu Lioose ſioaum vier Liooſed.

11. Breid þu þijna Giædſku ut yfer þa ſem þig
þeckia, og þijna Riettvijſe ut yfer þa (d) Goodu.

(d) Þa ſem eru Roadvander af Hiarta.

12. Loat mig ei af þeim Drambloatu Foot-
trodenn verda, og þad Hond hins Ogudlega
ſteype mier ecke.

13. Helldur loattu þa Illgiorda Menn þar
j þeim ſtad nidurfalla, So ad þeir burt ſna-
rader verde, og blijfe ecke framar.

# XXXVII. Psalmur.

David uppfræder þaa sem steyta sig. a þvi, ad hinum Ogudlegu Vegnar Vel j þessum Heime, og þeim Gudhræddu Jlla.

Psalmur Davids.

Eige skalltu gramur vera yfer þeim Jllu, Vert ecke Ofundsamur yfer þeim Jllgiörda Monnum.

2. Þviad so sem Gras munu þeir verda skiotlega upp hoggner, og lijka sem þad hinar grænu Jurter Munu þeir upp visna.

3. Vona þu a DRottinn, og giör hid gooda, Bw þu j Landenu, og leita þinnar Atvinnu (a) ærlega.

(a) (Ærlega) Med Gude og godu Rikte, ad þu Otteft Gud, og giörer øngvum Oriett.

4. Haf þu þijna Unadsemd a DRottne, Hann mun giefa þier hvad sem þitt Hiarta beidest.

5. (b) Bifala þu DRottne þijna Vegu, og vona a hann, hann mun þvi vel til Vegar koma,

(b) Velltu uppa DRottenn.

6. Og hann mun þitt Riettlæte hier frammleida sem Lioos, og þinn Riett lijka sem Middeiged.

7. (c) Halltu kirru fyrer, fyrer DRottne, og haf Vaktan a honum, Vert ei reidur vid þa hvorra Jllska ad hefur Frammgang.

(c) þad er, Bijd og hasta ecke.

8. Yfergief þu Reidena, og laat af (d) Styggllyndenu, Reidst þu ecke, so ad þu eirnenn illa giörer.

(d) Brennande Reide.

9. Þvi þeir hinu jllu verda afmaader, Enn hiner sem bijda DRottins, þeir munu Landed erfa.

10. Þad er enn nu um einn lijtenn Tijma (ad giöra) þa mun hinn Ogudhrædde ei leingur vera, og nær ed þu skijgnest epter hans Stad, mun hann vera j burt.

11. Enn hiner aumu munu Landed erfa, og Unadsemd hafa j miklum Fride.

12. Hinn Ogudhrædde hootar þeim Riettlaata, og nijster sijnum Tonnum til samans yfer honum.

13. Enn DRottinn hann hæder ad honum, Þviad hann sier þad hans Dagur mune koma.

14. Hiner Ogudhræddu ryckia ut Sverdum, spenna upp sinn Boga, Svo ad þeir felle hina Faatæku og Faaraadu, og nidurdrepe hinn Froma.

15. Enn þeirra Sverd munu jnnganga j þeirra sialfs Hiarta, og þeirra Boge mun j sundur brotna.

16. Þad hid litla sem hinn Riettlaate hefur, er betra, helldur enn þau hinu miklu Audæfenn margra Ogudhræddra.

17. Þviad Armleggur Ogudlegra mun j sundurbrotna, Enn DRottenn hann vid Magt helldur hinum Riettferduga.

18. DRottne eru kunner Dagar þeirra hiana Fromu, og þeirra Audur mun vara eylijflega.

19. Þeir munu ei til Skammar verda j þeirre vondre tijd, og a þeim Hallæris Tijmum munu þeir Sadning hafa.

20. Þviad hiner Ogudlegu munu fyrerfarast, og þeir Ovuner DRottins, þo þeir være eins og lystugur Grashage, þa munu þeir þo forganga, lijka sem Reykur ad øngvu verdur.

21. Hinn Ogudhrædde tekur Laan og bitalar ecke, Enn sa hinn Riettferduge er Miskunsamur og Milldur.

22. Þviad hans hiner Blessudu munu Landed erfa, Enn hans Bølvader munu afmaader verda.

23. Af DRottne mun greidast þess Manns Gangur, og hann hefur þocknan a hans Vegum.

24. Þo ad hann hrase, þa verdur hann ecke j burt kastadur, þviad DRottinn helldur j Hond med honum.

25. Eg var ungur, og em nu gamall ordenn,

denn, Og ei hef eg enn sied hinn Riettferduga verda yfergiefenn, nie hans Sæde ganga epter Braude.

26. Alltijd er hann miskunsamur, og lænar giarnann, og hans Sæde mun blessad verda.

27. Lát af Illu og gior Gott, Og bw um Alldur og Æfe.

28. Þviad DROTTinn hann elskar Riettindenn, og yfergiefur ecke sijna Heilaga, ad eylijfu verda þeir vardveitter, Enn Sæded Ogudhræddra mun upprætast.

29. Hiner Riettferdugu erfa Landed, Og bwa þar jnne eylijflega.

30. Munnur hins Riettferduga, mæler Vitsku, Og hans Tunga hun kienner Riettinde.

31. Logmaaled hans Guds er j hans Hiarta, Hans Gangur skridnar ecke.

32. Hinn Ogudhrædde umsitur hinn Riettferduga, Og hugsar ad deyda hann.

33. Enn DROTtinn yfergiefur hann ecke j hans Hendur, Og fyrerdæmer hann ei, þa ed hann verdur dæmdur.

34. Bijd þu DROTTens, og vardveit hans Veg, so mun hann upphefia þig, so ad þu Landed erfer, Pu munt þad siaa, ad hiner Ogudhræddu verda afmaader.

35. Eg saa eirn Ogudhræddann, sa var (e) Traassugur, Og hann þande sig wt, og bloomgadest sem Laurberia Trie.

(e) Ojafnadarsamur.

36. Og þa Mann gieck þar framm hiaa, Siaa þu, þa var hann burtu, Eg spurde ad honum, þa fannst hann hvorge.

37. Vertu Meinlaus og haga þier riettelega, þviad slijkum mun ad sijdurstu vel ganga.

38. Enn hiner Rangláatu munu aller til samans afmaader verda, Og hiner Ogudhræddu munu umsijder upprætter verda.

39. Enn DROttinn hann hiaalpar þeim Riettlaatu, hann er þeirra Stirkur j Neydenne.

40. Og DROTTinn mun hiaa þeim standa, og frelsa þa, Hann mun j fra Ogudhræddum frelsa þa, og þeim Hiaalp veita, Þviad þeir treysta a hann.

# XXXVIII. Psalmur.

David bidur ad GUd vilie (I) hugga sig mote Syndenne; og (II) vardveita sig mote sijnum Ovinum.

Psalmur Davids til (a) Minningar.

(a) (Minningar) Þad er, ad prijsa GUd, enn aakalla siaalfann sig; þad er, riettelega ad hugsa um GUD og siaalfann sig.

I, 2. DROTTinn! Straffa þu mig ecke j Reide þinne, Og typta mig ecke j þinne Grimmd.

3. Þviad þijn Skeyte þau standa j mier, Og þijn Hond hun þiakar mier.

4. Eingenn Heilbrigde er j mijnu Hollde fyrer þinne (b) Ognan, Og eige er neirn Fridur j mijnum Beinum, fyrer sokum Synda minna.

(b) Reide.

5. Þviad mijnar Synder eru uppgeingnar yfer mitt Hofud, Lijka sem onnur þung Byrde eru þær mier Ofþungar ordnar.

6. Mijn Saar lyckta jlla, og eru vægd, fyrer Heimsku minnar saker.

7. Eg geing lotenn og miog beygdur, Allann Dagenn þa geing eg hriggur.

8. Þviad mijnar Lendar eru uppvisnadar med ollu, Og eckert er heilbrigdt j mijnu Hollde.

9. Pad er orded umskiptelegt fyrer mier, og eg em miog sundur knosadur, Eg æpe wt af Orosemd mijns Hiarta.

10. DROTTinn! fyrer þier er oll mijn Gyrnd, Og mijn Andvarpan er þier ei hulenn.

11. Mitt Hiarta þad skielfur, minn Kraptur hann hefur mig yfergiefed, Og (c) Liosed minna Augna þad er ecke hiaa mier.

(c) (Liosed) þad er, mitt Andlit er ecke skiært, nie gladvært, helldur Sorgarfullt og mirkt.

II, 12. Mijner Viner og Kunningiar standa j giegn mier, og horfa a mijna Pijnu, Og mijner Naaungar ganga langt j burt.

13. Og þeir sem stunda epter minne Saalu umsitia mig, Og þeir ed mier vilia til Vonda tala

tala um þad, hvornenn þeir fœe Skada giørt, og umgangast ecke utan med Svikrœdum.

14. Enn eg hlyt ad vera sem Daufinge, og heyra ecke, Og so sem Mœllaus, sa ed ei upplykur sijnum Munne.

15. Og eg hlyt ad vera so sem sa ed ecke heyrer, Og sa sem eckert Mootmæle hefur j sijnum Munne.

16. Enn eg, DROTTinn! bijd epter þier, Þu DROTTinn GUD minn munt bænheyra.

17. Þviad eg þeinke, ad eige mune þeir nœ ad gledia sig yfer mier, Þa mijner Fætur skeika, þa munu þeir hælast miøg um vid mig.

18. Þviad þar til em eg (d) giørdur, ad eg lijde, og mijn Pijna er jafnan fyrer mier.

(d) Buenn til.

19. Þviad eg giøre kunnann minn Misgiørning, Og ber Angur fyrer mijnar Synder.

20. Enn mijner Oviner þeir lifa, og eru megtuger, þeir ed mig hata Oriettvijslega eru mikels hœttar.

21. Og þeir ed mier giøra Illt fyrer Gott setia sig upp a moote mier, Af þvi, ad eg epterfilge þvi enu gooda.

22. Yfergief þu mig ecke DROTTinn GUD minn, Vert þu ecke Fiarlægur mier.

23. Flyttu þier til ad standa hiœ mier, DROTTinn mitt Hiœlpræde!

## XXXIX. Psalmur.

David talar (I) um Daudlegleika Mannsins; og (II) Hversu hann se Hegomlegur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia fyrer Jeduthun.

I. 2. Eg hefe einsett mier, eg vil varast þad eg syndge ecke med minne Tungu. Eg vil (a) temia minn Munn, a medan eg hlyt ad siœ hinn Ogudlega so fyrer mier.

(a) (Temia) Þad er, ad eg møgle ecke um þad, ad mier geingur so illa, enn þeim vondu so vel.

3. Eg em Mœllaus og hlioodur, og eg þeige um Gledskapinn, Minn Harm hlyt eg med mier ad mellta.

4. Mitt Hiarta þad brennur j mijnum Lijkama, Og nær eg hugsa þar til, þa stikna eg, eg ræde med minne Tungu.

5. Enn (b) kienn þu mier þo, DROTtinn! ad þad hliote Enda ad hafa um mig, Og ad mijner Lijfdagar hafa Takmark, Og eg hlyt fra ad hverfa.

(b) So ad eg life ecki so athugalaust, so sem þeir Ogudligu, þeir ed ecki vænta annars Lijfs.

6. Siœ þu! mijner Dagar eru hiœ þier sem ein Þverhandar Breidd, og mitt Lijf er so sem ecke pared fyrer þier, Hvørsu olldungis eckert eru aller Menn, þeir ed þo so Athugalauser lifa, Sela.

II. 7. Þeir lijda j burt hiedan sem (c) Skugge, og giøra sier marga Oþarfa Armædu, Þeir safna samann, og vita ei hvør þad mun fœ.

(c) (Skugge) Svo sem j einu Bijlæte.

8. Nu DROTTinn! Hvar vid skal eg huggа mig? Eg vona a þig.

9. Frelsa þu mig ut af ollum mijnum Syndum, og lœt mig ecke þeim Vitleysingum ad Hœde verda.

10. (d) Eg vil þeigia, og ecke mijnum Munne uppluka, Þu munt þvi vel af stad koma.

(d) (Þeigia) Eg vil þa fara lœta, og møgla ecki þier j mote.

11. Tak burt þijna Plœgu af mier, þviad eg er Mœttlaus ut af Hirtingu þinnar Handar.

12. Nær ed þu typtar nockurn Syndarennar vegna, þa fortærest hans Fegurd sem være hun Møljetenn, Oh, hvørsu alldeilis Eckert eru aller Menn! Sela.

13. Heyr þu, DRottinn! mijna Bæn, og merk mitt œkall, og þeig ecke vid mijnum Tœrum, þviad eg *em bæde þinn Pilagrijmur, so og lijka þinn Borgare, so sem aller mijner Fedur. *Ebr. 11, 13.

14. Gief upp vid mig, so ad eg endurlifne œdur enn þad eg fer j burt hiedann, og er hier ei leingur!

## XL. Psalmur.

Spaadomur (I) um Pijnu Messiæ; og (II) um hans Prophetiska Embætte.

Psalmur Davids til ad syngia fyrer.

I. 2. Eg beid epter DROttne, og hann hneigde sig til mijn, og heyrde mitt aakall.

3. Og hann droo mig ut af þeirre Ognar Grof, burt ur þeim Saurenda þreck, Og sette mijnar Fætur a fasta Hellu, so ad eg kann ad ganga stodugt.

II. 4. Og Nyann Saung gaf hann mier j minn Muun, til ad lofa vorn Gud, ufarger munu þad sioa, og oottast DRottinn, og vona a hann.

5. Sæll er sa sem setur sijna Von uppa DRottinn, og hann hvor ad ecke snyr til hinna Siergodu, og þeirra sem Lygar um (a) Hond hafa.

(a) (Hafa) Beygia sig til Lygarinna.

6. DRottinn, Minn Gud! Miklar þa eru þijnar Daadsemder, og þijnar Hugsaner, þær þu audsyner oss, Eckert er þier lijkt, Eg vil kunngiora þær, og þar af seigia, þo ad þær sieu Otelianlegar.

7. *Foorner og Matoffur þocknast þier ecke, Enn mijn Eyru opnader þu, Brennefoorner og Synda-Offur þad villt þu ecke. *Ebr. 10, 5. 6.

8. Þa sagde eg, Sioa þu, Eg kiem, J Bookenne er skrifad af mier.

9. Þinn Vilia, Minn Gud! giore eg giarnann, og þitt Logmaal hef eg j mijnu Hiarta.

10. Eg vil predika Riettvijsena j þeirre hinne Miklu Samkundu, Sioa þu, Eg mun ecke minn Munn a mier byrgia laata, þu DRottinn! veist þad.

11. Þijna Riettvijse byrge eg ei j mijnu Hiarta, ut af þijnum Sannleika og Hiaalpræde þa tala eg, Eg dyl ecke þijna Miskun og Sannleiks Triggd fyrer þeirre hinne miklu Samkundu.

12. Enn þu, DRottinn! snuu ecke þinne Miskun fraa mier, Laattu þijna Miskunsemd og Trufeste jafnann vardveita mig.

13. Þviad Otelianleg Kvalræde hafa umkringt mig, Mijnar Synder þær hondludu mig, so ad eg (b) kann ei ad sioa, Fleyre eru þær en Haarenn a Hofde mijnu, og mitt Hiarta þad hefur yfergiefed mig.

(b) (Sioa) So ad fyrer Hiartans Hriggd misse eg Synena.

14. Laat þier þad þeckt vera, DRottinn! ad þu frelser mig, Flyttu þier DRottinn mier til Hiaalpar!

15. Skammast meiga þeir sijn, og til Skammar verda, sem stunda epter minne Saalu, ad þeir tortijne henne, Til baka falle þeir, og til Skammar verde þeir sem mier villa til Vonda.

16. Af sinne Hneysu þa (c) hrædest þeir, sem hropa yfer mier og seigia, Sioa þar! Sioa þar!

(c) Eydeleggist sier til Smaanar Launa.

17. Gledie sig og fagne aller þeir ed þijn leita, og þeir ed þitt Hiaalpræde elska, þa meige ætijd seigia, DROttinn sie haatt Lofadur!

18. Þviad eg er Faatækur og Faaraadur, Enn DROttinn ber Ahyggiu fyrer mier. Þu ert minn Hiaalpare og Frelsare, Minn Gud seinka þu ecke!

## XLI. Psalmur.

Spaadomur (I) um þad er Messias aatte ad Lijda; og (II) um Svikræde mote Honum.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia.

I. 2. Sæll er sa sem annast hinn þurftuga, DRottinn mun frelsa hann j þeirre hinne Vondu Tijd.

3. DRottinn mun bivara hann, og halda honum vid Lijfed, og laata honum vel ganga a Jordunne, og yfergiefa hann ei j Vilia sinna Ovina.

4. DROttinn mun endurlijfga hann a hans

hans Soottar-Sæng, þu hiaalpar hønum ut af øllu hans Krankdæme.

5. Eg sagde, DROttinn! miskuna þu mier, lækna þu Saal mijna, þviad eg hefe syndgast a moote þier.

6. Mijner Oviner þeir mæla vondslega til mijn, Nær mun hann deya, og hans Nafn forganga?

7. Þeir fara ad skoda, og meina þad þo ecke ut af Hiarta, Helldur leita nockurs sem þeir kunne ad lasta, ganga sijdan a burt, og bera þad ut.

8. Aller þeir ed mig hata hvijskra til samans a mote mier, Og hugsa mier vondt til.

9. Eitt (a) Illskupar hafa þeir aalycktad a mote mier, Nær ed hann liggur, þa skal hann ecke upp aptur standa.

(a) Þeir seigia) Þar hanger einn Belials Hlutur vid hann.

II. 10. * Eirnenn minn Vinur, hvørium eg treyste, Sa ed aat mitt Braud, hann (b) tredur mig under Fætur.

* Joh. 13, 18. Post. Giornb. 1, 16.

(b) Upphefur sinn Hæl j mote mier.

11. Enn Þu DROTTinn! miskuna mier, og hiaalpa mier a Fætur, Og mun eg þa endurgiallda þeim.

12. Ut af þvi formerke eg, ad þu hefur Þocknan a mier, Ad minn Ovinur hlackar ecke yfer mier.

13. Enn mig þa stydur þu fyrer mijns Meinleysis saker, Og setur mig fyrer þinne Augsion æfenlega.

14. Lofadur sie DROTTinn GUD Israels fra nu og til (c) eylijfrar Tijdar, Amen, Amen!

(c) Eylijfdar.

## XLII. Psalmur.

Davids Huggun i Offsoknum.

Ein Undervijsun Barna Chore ad syngia fyrer.

2. Lijka sem þad Hiorturenn kallar epter fersku Vatne, So kallar mijn Saala, Gud! til þijn.

3. Mijna Saalu hana þyrster epter Gude, epter þeim Lifanda GUde, Hvonar mun eg þangad komast, þad ad eg siaae (a) Guds Andlit?

(a) Þar ed GUd byr, sem j einu Mustere, og hvar ad hans Ord er.

4. Mijn Taar þau eru mijn Fædsla Dag og Noott, med þvi ad daglega verdur til mijn sagt, Hvar er nu þinn GUd?

5. Nær eg hugsa þar til, þa uthelle eg mijnu Hiarta hiaa sialfum mier, Þviad eg villde giarnann med þeim Flocknum burt ganga, og med þeim fara til Guds Hwss, med Gledskap og Þackargiord, med þeim Hoopnum sem ad helldur Heilagt.

6. Þvi angrar þu mig Saala mijn, og ert so Orooleg j mier? Bijd þu epter GUde, þviad eg mun hønum enn Þacker giora, þad hann hiaalpar mier med sijnu (b) Auglite.

(b) (Auglite) Þad er, Med hans Þeckiug og Naalægd, fyrer Ordid og Truna.

7. Minn GUd! Saala mijn er Sorgbitenn j mier, Þar fyrer minnest eg a þig j Lande nu (c) hiaa Jordan og Hermonim, a þvi litla Fialle.

(c) (Jordan) Þad er j Gydinga Lande, hvørt hann so kallar, þviad Jordan rennur um þad midt, Og Hermonim eru þau haau Fioll þar j naand, j hiaa hvørium Fialled Sion er ad reikna so sem lijtell Hooll eda Hæd.

8. Þijn (d) Vatnsfoll dynia þadann, so ad eitt Diuped hier framm, og annad Diuped fossar þar framm, Allar þijnar Vatns-Olldur og Bylgiur ganga luckt yfer mig.

(d) Vatnsfoll) Eins og þad skiede þa Egyptsku j þvi Rauda Hafe.

9. DROTTinn hefur a Degenum heited sinne Giædsku, Og a Naattar Tijma syng eg hønum, og bid til Guds mijns Lijfs.

10. Eg sege til Guds mijns Stirktar Biargs, Hvar fyrer gleymer þu mier? Þvi hlyt eg ad ganga so Sorgfullur, þa ad minn Ovin hann þvingar mig?

11. Þad er so sem Mord j mijnum Beinum, þad mijner Oviner smaana mig, Þa er þeir seigia daglegana til mijn, Hvar er nu þinn Gud?

12. Hvi ert þu Saala mijn so Sorgfull, og ert so Angurvær j mier? Vona þu a GUd, þviad eg mun honum enn Þacker giora, þad hann er mijns (c) Auglitis Hiaalpare, og minn GUd.

(c) Þad er, Hann giörir mier ecke Kinnroda, ut supra 34, 6. Helldur lætur hann mig med Fognude sia mijna Bæn.

## XLIII. Psalmur.

Davids Bænagiörd til Drottens (I) um Vardveiting; (II) um Upplysing; og (III) um Huggun.

I. Dæm mig GUd! og frammfilg mijnu Maalefne j mote þeirre Oheilagre Þiood, Og frelsa mig fra Sviksamlegu og Illu Folke.

2. Þviad þu ert GUd minn Styrkleike, Hvar fyrer vtskufar þu mier? Hvi lætur þu mig ganga so Sorgfullann, nær ed minn Ovin hann þreynger ad mier?

II. 3. Utsend þu þitt Lioos og þinn Sannleika, ad þau leidtoge mig, og leide mig a þitt Heilaga Fiall, og j þijna Tialldbud.

4. So þad eg inngange til Guds Alltaris, til þess Guds sem er mijn Glede og Unadsemd, Og þad eg þacke þier GUd, med Horpunne, Minn Gud!

III. 5. Hvar fyrer ertu, Saala mijn, so Sorgfull? Og ert so Oroo j mier? Vona a GUd, Þviad eg mun honum enn Þacker giora, þad hann er Hiaalpare mijns Andlitis, og minn Gud.

## XLIV. Psalmur.

Andvarpan og akallan Guds Barna fyrer Guds Kyrkiu.

Ein Undervijsun Barna Chore fyrer ad syngia.

2. GUd! vier hofum heyrt med vorum Eyrum, Fedur vorer hafa kunngiort oss þad, Hvad þu giorder a þeirra Tijmum fordum Daga.

3. Þu j burt rakst hina Heidnu med þinne Hende, Enn (a) innsetter þa, þu fordiarfader Folked, enn þa (b) utbreidder þu.

(a) Plantadir þa.
(b) Lietst þa fara.

4. Þviad ei hafa þeir Landed under sig lagt med sijnu Sverde, og þeirra Armur stodade þeim ecke, Helldur þijn Hægre Hond, þinn Armleggur, og Liosed þijns Andlits, þviad þu hafder godann Þocka a þeim.

5. Gud! Þu ert sa hinn same minn Kongungur, þu sem Jacob Hiaalpræde (c) fyrerhietst.

(c) Skipa þu ad Jacobs Hiaalp skule ske, Frelsa þu Jacob.

6. Fyrer þig vilium vier vora Ovine vid Velle leggia, J þijnu Nafne vilium vier þa under Fætur troda sem reisa sig upp a moote oss.

7. Þviad eige treyste eg uppa minn Boga, Og mitt Sverd kann mier ecke ad hiaalpa.

8. Helldur hiaalpar þu oss fra vorum Ovinum, og giorer þa til Vanvirdu sem oss hata.

9. Daglega vilium vier hroosa oss j Gude, Og þijnu Nafne þacker giora eylijflega, Sela.

10. Hvar fyrer burt skufar þu oss þa nu, og lætur oss til Skammar verda? Og dregur ecke ut med voru Herlide.

11. Þu lætur oss flya fyrer vorum Ovinum, So ad þeir, hvorier ed hata oss, ræna oss.

12. Þu lætur oss uppetast sem Saude, og j sundur dreifer oss medal Heidenna Þioda.

13. Þu selur þitt Foolk ut fyrer ecke par, og (d) tekur eckert Verd fyrer þad.

(d) Metur þa ecke Dyra.

14. Þu giorer oss ad Forsmaan vorum Naabuum, Ad Spotte og Haade þeim sem j kringum oss eru.

15. Þu giorer oss ad Maalshætte a medal Heidingianna, og Foolked skiekur Hofudinn ad oss.

16. Daglega er mijn Smaan fyrer mier, og mijn Asioana er full af Forsmaan.

17. So ad eg heyre þa Nidrunar Menn og Lastendur, og verde ad sioa þa Ovine og þa Hefndargiornu.

18. Allt þetta er yfer oss komed, og vier hofum þo ecke forgleymt þier, og eige hondlad Otrulega j þijnum Saattmaala.

19. Vort Hiarta er ecke fraa falled, nie vor Ganga vikenn af þijnum Vege.

20. Ad þu sundurbrytur oss þannenn medal (e) Drekanna, og hylur oss med Mirkrenu.

(e) (Drekanna) Þad er, þeir eitrudu Tyrannar, og Mirkred, merker hier Olucku.

21. Ef ad vier hefdum forgleymt Guds vors Nafne, og vorar Hendur upphafed til eins annarlegs Guds,

22. Þad mætte Gud vel finna, Nu þecker hann vel vorn Hiartans Grunn.

23. Þviad *Daglega verdum vier (f) fyrer þijna Skulld nidur drepner, og erum halldner so sem adrer Slaatrunar Sauder.
*Rom. 8, 36.

(f) (Þijna Skulld) Þeir ofsækia oss ecke fyrer saker vorra Misgiorninga, helldur ofsækia þeir þitt Ord sem er j hia oss.

24. Vakna þu upp, DROTTinn! Hvar fyrer sefur þu? Vakna þu, utskufa oss ecke so algiorlega.

25. Hvar fyrer byrger þu þitt Andlit? Forgleymer vorre Eymd og Þreyngingum.

26. Þviad vor Saala er til Jardar nidurbeygd, Vor Kvidur hann klesseft nidur vid Jordena.

27. Tak þig upp, hiaalpa oss, og frelsa þu oss fyrer þinnar Miskunar Saker!

## XLV. Psalmur.

Spaadomur (I) um Brudgumann Messias; og (II) um Brudena Guds Kyrkiu.

Brudar Dicktur, og Undervijsun Barna Chore, til ad syngia fyrer ut af (a) Rosenne.

(a) Uppa Schoschannim.

I. 2. Hiarta mitt þad (b) yrker eitt Agiætt Kvæde, utaf einum Konunge vil eg syngia, Mijn Tunga er Penne eins Agiæts Skrifara.

(b) Utheller.

3. Þu ert hinn Frijdaste a medal Mannanna Barna, Astudlegar eru þijnar Varer, þarfyrer blessar þig Gud eylijflega.

4. Gyrd þitt Sverd vid þijna Sijdu, þu Hetia! og pryd þig fagurlega.

5. Þad skal luckast þier vel j þinne Pryde, Bruna þu hier framm Sannleiknum til goda, og þa hina Faatæku vid Riettinn ad halllda, þa mun þijn Hægre Hond Daadsemdar-Verkenn audsyna.

6. Hvoss eru þijn Skeyte, so þad Foolked hrinur nidur fyrer þier, Midt a millum Kongsins Ovina.

7. *Gud! þinn Stooll hann varer um Alldur og ad eylijfu, Þijns Rijkes Sprote er riettur Sprote. *Ebr. 8, 1.

8. Þu elskar Riettlæted, enn hatar Ogudlegt Athæfe, þar fyrer hefur þig Gud, þinn Gud, smurt med Gledinnar Vidsmiore, meir enn þijna Samlags-Brædur.

9. Þijn Klæde eru ecke utann Myrrha, Aloes og (c) Kezia, Nær ed þu utgeingur af Filabeins Hollenne j þinne fogru Pryde.

(c) (Kezia) Hvad Kezia er, veit eg ecke, Sumir kalla þad Kazia, þad mun vera ein vellyktande Jurt sem lætur Klædenn verda Daungood.

II. 10. J þinne Pryde ganga Konunganna Dætur, Brwdurenn stendur til þinnar Hægre Handar, i einungis kostulegu Gulle.

11. Heyr þu Dotter! lijt þar a, og hneig þijn Eyru, Forgleym þijnu Folke, og þijns Fodurs Huse.

12. Þa mun Kongurenn Lysting faa a þinne Fegurd, þviad hann er Þinn DROttinn, og þu skallt Hann tilbidia.

13. Dæturnar (d) Zor munu þar medur Fiegiofum vera, Hiner Rijku medal Foolksins munu Graatbæna fyrer þier.

(d) Zor heiter Stadurenn Tyrus, Enn hann nefner þann Stad sem j þann Tijd var hinn rijkaste og nafnfrægaste, þar med avijsande, ad lijka vel þeir hinu rijkustu j Verølldunne mundu heidra Christum.

14. Kongsins Dotter er nærsta dæeleg hid (e) jnnra, Hun er klædd med Gullvefiar Bordum.

(e) (Jnnra) So sem j Frwr Herbergium allt gloandi af Gulle og Silke.

15. Hun er j utstungnum Klædum til Kongsins leidd, Og hennar Leiksystur, Meyarnar, þær ed henne epterfilgia, verda leiddar (f) til þijn.

(f) (Til þijn) Þad er eins og til Dans edur Fagnadar.

16. Þær verda leiddar med Glaum og Gledskap, Og jnnganga j Konungsins Høll.

17. J Stadenn Fedra þinna muntu faa Børn, Þa muntu setia til Høfdingia j allre Verølldunne.

18. Minnast vil eg þijns Nafns, fra Barne og til Barna Barna, Fyrer þad mun Folked þier Packer giøra, um Allder og ad eylijfu.

## XLVI. Psalmur.

(I) Huggun Guds Kyrkiu i Þianingunum; og (II) Føgnudur epter Þrauternar.

Eirn Dicktur Barna Chore, fyrer ad (a) syngia, wt af Æskunne.

(a) Yfer Alamoth.

I. 2. GUd hann er vort Athvarf og Styrkur, Einn Hialpare j þeim miklu Anaudum sem a oss hafa hitt.

3. Þar fyrer ottunst vier ecke þo ad Verølldenn (b) undergenge, Og þo ad Fiøllenn sycke nidur j Hafed midt.

(b) (Undergenge) Þad er, Þo ad Jordenn hun hristest, og Fiøllenn flye j burtu.

4. Þo ad Siooren geisade eirnenn, og rootadest um, Og ad Biørgenn ut af hans Ølgu nidur hrynde, Sela.

5. Samt mun Guds Stadur vera kostulegur, og lystelegur med sijnum Vatns Brunnum, Þar ed eru Heilog Herberge hins Hæsta.

6. GUd er hiaa hønum þar fyrer jnnann, af þvi mun hann vel blijfa, GUd hann hialpar hønum aarla.

7. Hiner Heidnu munu ørvænta, og Kongarijkenn falla, Jordenn hlytur ad forganga, nær ed Hann lætur sig (c) heyra.

(c) (Heyra) Þad er, Þegar hann lætur Reidarþrumur heyra.

8. DROTTJNN Zebaoth er medur oss, GUd Jacobs hann er vor Verndare, Sela.

II. 9. Komed hingad, og siaaed Verkenn DROTTins, hvør ed soddan Foreyding giører a Jordunne.

10. Hann ed Bardøgum aptrar j allre Verølldu. Hvør ed Bogann brytur, Hvør ed Vopnenn j sundur molar, og Kerrurnar brenner j Ellde.

11. Vered kirrer og medkienned, þad Eg em GUd, Eg vil Frægder vinna a medal Heidinna Þioda, Eg vil a Jordu Frægd vinna.

12. DROTTinn Zebaoth er medur oss, GUd Jacobs hann er vor Verndare, Sela.

## XLVII. Psalmur.

Spaadomur (I) um þad Konunglega Embætte Messiæ; (II) Haatignarlega Himnafør; og (III) um hans Guddomlegu Magt.

Psalmur Barna Chore, ad syngia fyrer.

I. 2. Hafed Loofatak allar Þiooder, haatt lofed GUd med gledelegre Raust!

3. Þviad sa hinn Hæfste DROTTenn hann er Ogurlegur, Einn mikels haattar Konungur yfer allre Jardarkringlunne.

4. Hann mun Folked under oss þvinga, Og Þiooðernar under vorar Fætur.

5. Hann utvelur oss til Arfleifdar, Vegsemdena Jacobs, hvørn hann elskar, Sela.

II. 6. GUd hann stijgur upp med haafum Fagnadar Hlioodum, Og DROTTJNN med skiærre Ludra Raust.

III. 7. Synged Lof, synged Lof GUde, Synged Lof, synged Lof vorum Konge!

8. Þviad GUd hann er Kongur a allre Jor-

Jordunne, Syngeð honum Lof (a) forsiaalegana.

(a) (Forsiaalega) Það er, Ad menn vandlega tractere Orðeð, halldeþar við, ecke hrope og framm æve, so sem Faavijser og Sinnulauser Skreparar, og undarleger Predikarar, hvörier eð tala hvad hellst þeim synest.

9. GUð er Kongur yfer Heiðingiunum, GUð hann situr a sijnum Heilaga Stoole.

10. Hofdingiar Pioodanna eru samansafnader til Foolksins Guðs Abrahams, Pviad GUð hann er miog upphafenn, hiaa (b) Skiolldunum a Jordunne.

(b) (Skiolldunum) Pað er, Ad meðal Christi Truaðra skulu og so nockrer Heiðingiar vera, þeir kallast hier Skyllder a Jordunne.

## XLVIII. Psalmur.

En Jarðneska Jerusalem og Fialleð Zion vorn Fyrermindaner uppaa Guðs Kyrkiu þess Nya Testamentesins. Psal. 87.

Ein Psalmvijsa Barna Chore.

2. Mikell er DROTTinn, og hæalofadur J Borginne Guðs vors, upp a sijnu Heilogu Fialle.

3. Fialleð Zion er so sem eirn fagur Viðarkvistur, af hvörium allt Landeð huggar sig, við þa Nyrdre Sijðuna liggur Borgenn hins Mikla Kongsins.

4. Guð er j hennar Hollum meðkiennður, Pað hann er Verndenn.

5. Pviað siaa þu, að (a) Kongarner eru til samans safnaðer, Og eirn með oðrum þa hafa þeir þar framm hiaa fareð.

(a) (Kongarner) Það er, Kongarner hafa hrædst þennann Stað, og opt með Skom og Sneypu orðeð fraa honum að snua.

6. Peir undrudust þa eð þeir saau soddan, þeim ægðe það sialfum, og eru um Koll fallner.

7. Skielfingenn er þar yfer þa komenn, Angist so sem þeirrar eð Joodsiuk er.

8. Pu j sundurbrytur Skipenn j Hafenu, Fyrer þann Austann Vind.

9. Lijka sem að vier hofum heyrt, so siaaum vier j Borgenne DROTTins Zebaoth, j Borgenne Vors Guðs, Guð helldur við Magt þeirre hinne somu að eylijfu, Sela.

10. Guð! þinnar Miskunar væntum vier j þijnu Mustere.

11. Guð! lijka sem að er þitt Nafn, so er eirnenn þinn Lofstijr, allt til Veralldar Enda, þijn Hægre Hond er full af Riettvijse.

12. Fialleð Zion það gledie sig, og Dæturnar Juda vere glaðværar, Fyrer þinna Riettinda saker.

13. Flyckist j kringum Zion, og faðmeð hana, og telieð hennar Turna.

14. Leggeð Kostgiæfne a hennar Muura, og upphefieð hennar Haller, So að þar ut af kunne að (b) segiast hiaa Epterkomendunum,

(b) Að predikast mege Guðs Orð.

15. Að þesse Guð hann er Vor Guð, ætijð og að eylijfu, Hann leiðtogar oss lijka sem (c) Æskuna.

(c) (Æskuna) Pað er, Hann kienner oss so blijðlega og miwklega, fyrer Orð Naadarennar, lijka sem þa Fader og Moder uppfoostra eitt Barn, eige so sem Boðull eður Refsingar Maður, frammdrijfa og neyða með Logmaalenu. Eður so, hann stiornar oss allt til Dauða.

## XLIX. Psalmur.

David kenner, að Auður, Vegsemd, og Virðing hinna Oguðlegu er Einunges Hegome.

Psalmur Barna Chore fyrer að syngia.

2. Heyreð til allar Pioođer, Merkeð þetta aller þier sem (a) lifeð a þessum Tijma.

(a) Bveð j Verolldenne.

3. Bæðe Alþijðu Menn og Herrarner, Bæðe Rijker og Faatæker til samans.

4. Minn Munnur skal ut af Vijsdome tala, Og mitt Hiarta af Skilninge segia.

5. Vier vilium gooða Maalsgrein heyra, Og eirn Agiætann Dickt a Horpurnar leika.

6. Hvar fyrer skyllda eg hræddur vera a þeim

þeim vonda Dege, Nær ed Illgiord minna Yfergangs-Manna umkringer mig?

7. Þeir ed treysta uppa sijn Audæfe, Og traassa uppa sitt mikla Rijkedæme.

8. Þar kann þo eingenn Broder nockurn ad leysa, nie nockurn vid Gud ad Forlijka.

9. Þviad þad kostar allt Formiked, þeirra Saaler ad endurleysa, So ad hann hlytur þad kirrt ad laata vera eylijflegana.

10. Þo ad hann (b) lifde alldrei so leinge, Og siaae ecke Grøfena.

(b) (Lifde) Þad er, Hann hefur goodann Mood, hugsar alldrei um Daudann.

11. Þvi Menn skulu siaa, ad soddann Vijser Menn deya þo, lijka sem þeir hiner Heimsku og Faavijsu tortijnast, og hliota sijn Audæfe ødrum ad laata.

12 Þetta er þeirra Hiarta, ad þeirra (c) Hws mune vara eylijflega, þeirra Bwstadur blijfe um Alldur og Æfe, og hafe mikla Virding a Jordu.

(c) (Hws) Þad er þeirra Sleckte, Børn og Hyske, etc.

13. Þo kunna þeir j slijkum (d) Virdingum ei ad blijfa, Helldur hliota þeir vid ad skilia sem annar Fienadur.

(d) (Virdingum) Þad er Audæfum og Vegsemd.

14. Þesse þeirra Giorningur er ei utann Heimska, þo lofa þeirra Epterkomendur þad med sijnum Munne, Sela.

15. So sem adrer Sauder liggia þeir j Helvijte, Daudenn hann nagar þa, Enn hiner Riettvijsu munu miøg snarlega yfer þeim Drottna, og þeirra Offtæke þad hlytur ad þverra, j Helvijte hliota þeir ad blijfa.

16. Enn Gud mun frelsa mijna Saalu ut af Helvijtis Vallde, Þviad hann hefur teked mig ad sier, Sela.

17. Laat ecke þad villa þig, þott ad eirn verde rijkur, edur þo ad Soome hans Hwss verde mikell.

18. * Þviad j sijnu Andlaate mun hann Øngvann Hlut med sier taka, Og hans Dijrd mun ei epter honum fara. * 1 Tim. 6, 7.

19. Enn hann huggar sig vid þetta (e) Sællijfe, og lofar þad nær einhvør stundar epter goodum Døgum.

(e) (Sællijfe) Þad er, Þad helldur hann Farsælld, ad hafa hier Nægd Vallds og Virdingar.

20. So fara þeir epter Fedrum sijnum, Og siaa Liooʃed alldrei optar.

21. Stuttlega, Nær ed Madurenn er j Heidrenum, og hefur ecke Skilningenn, þa fer hann burt lijka sem Fienadurenn.

## L. Psalmur.

Asaph talar um þaa Sønnu Guds Þionustu.

Eirn Psalmur Asaphs.

GUD DROTTinn Sa Vollduge hann talar, og kallar Verølldena j fraa upprúna Soolarennar allt til hennar Nidurgøngu.

2. Ut af Zion upprennur sa Fegurdar Geislenn Guds.

3. Vor Gud hann kiemur, og þeiger ecke, fortærande Elldur geingur undann hønum, og j kringum hann mikell Stormvindur.

4. Hann kallar Himenenn og Jordena, þad hann (a) dæme sitt Foolk.

(a) (Dæme) Ad hann styre, hiaalpe, leyse fraa Diøflenum, Daudanum, Mønnønum, og Syndenne.

5. Samanfafned mier mijnum Heiløgum, þeir ed meir hallda ut af Saattmaalanum, enn Foornfæringunum.

6. Og Himnarner munu kunngiøra hans Riettlæte, þviad Gud er Domarenn, Sela.

7. Heyr þu Folk mitt! laat Mig tala, Israel! laattu mig votta medal þijn, Eg Gud em þinn Gud.

8. Fyrer þinna Foornfæringa saker aavijta eg þig ecke, þijnar Brennefoorner eru þo jafnaun samt fyrer mier.

9. Ei vil eg taka Uxa af þijnu Hwse, nie Hafra ut af Stalle þijnum.

10. Þviad Dijrenn øll j Skogunum eru mijn, og Kvikfied a Fiollunum, þar ed þad geingur Þusundum til samans.

11. Alla Fuglana a Fiollunum þa þecke

eg, og allra handa Dyr a Morkenne eru fyrer mier.

12. Ef eg er hungradur þa villde eg þier þar ecke af seigia, *þviad Jordenn er mijn, og allt hvad þar er jnne. *Gb.Post.17,24. 1 Cor. 10, 26.

13. Hvort þeinker þu, ad eg vilie Uxa Kiot eta, Edur Hafra Blood Drecka?

14. Offra þu Gude Packargiord, og giallð þinum Hæsta þijn (b) Heit.

(b) (Heit) Pad er, Hvad þu h'etst Gude, ad hann sie þinn Gud epter Hliodan þess Stoora Bodordsins.

15. Akalla mig j Neydenne, þa mun eg frelsa þig, og þu skallt þa heidra mig.

16. Enn til hins Ogudhrædda seiger Gud, Hvar fyrer kunngiorer þu mijnar Riettlætingar, og tekur minn Saattmaala þier j Munn?

17. Þar ed þu hatar Typtunena, og fleyger mijnum Ordum a Bak þier aptur.

18. Nær ed þu sier Þiofenn, þa hleypur þu med honum, og leggur þitt Samlag med Hoorunar Monnum.

19. Þinn Munn lætur þu tala jllt, Og þijn Tunga fremur Flærd.

20. Þu situr og talar j moote þijnum Brodur, Syne þinnar Modur bakmæler þu.

21. Þetta giorer þu, og eg þeige, þa meinar þu, þad eg mune lijkur þier, Enn Eg vil straffa þig, og Eg vil setia þier þad fyrer Augunn.

22. Hygged þo ad þessu þier sem Gude gleymed, So ad eg burtsvipte ecke eitt Sinn, og ad þar sie þa eingenn Frelsare leingur.

23. Hvor ed Packlætenu offrar hann heidrar Mig, og þad er Vegurenn, ad Eg syne honum Guds Hiaalpræde.

## LI. Psalmur

Ad David hafe giort Jdran af ollu Hiarta, sest her (I) af hans margre veana Syndarennar; (II) af hans Tru a Messias; (III) af aprepte Truarennar i Hreinferdugu Lijferne Rettlæte, og Gudrækne.

1. Psalmur Davids fyrer ad syngia. 2. Þa Nathan Spaamadur kom til hans, epter þad hann hafde jnn geinged til Bersabee.

I. 3. Miskuna þu mier, Gud! epter þinne Miskunseme, Og afmaa mijnar Synder, epter þinne Storre Miskunseme.

4. Þvo þu mig vel af Misgiord minne, og hreinsa mig af Synd minne.

5. Þviad eg medkienne mijna Misgiord, og mijn Synd er jafnan fyrer mier.

6. Þier einum hefe eg a moote broted, og jlla breitt fyrer þier, So ad *þu hallder Riettu j þijnum Ordum, og hreinn verder nær ed þu dæmest. *Rom.3,4.

7. Sioa þu! ut af Syndsamlegu Sæde em eg gietenn, og j Synd gat mig mijn Moder.

II. 8. Sioa! þu hefur Lyst til Sannleikans sem hulenn liggur, þu lætur mig vita þann heimuglega Vijsdoom.

9. (a) Afleys þu mig med Ysopo, so ad eg hreinsest, þvo þu mig, so ad eg Snioohvitur verde.

(a) (Afleys) Þad er, Segdu mig friaalsann fraa mijnum Syndum, hvor Aflausn ed merkest fyrer Astæckvan Ysopi.

10. Laat þu mig heyra Fognud og Glede, so ad þau Beinenn gladvær verde, sem þu hefur j sundur broted.

11. Byrg þitt Andlit fraa mijnum Syndum, og afmaa þu allar mijnar Misgiorder.

III. 12. Hreint Hiarta skapa þu Gud! j mier, og gief mier eirn Nyann (b) Stodugann Anda!

(b) (Stodugann) Þad er Vissann Anda, hvor ed Obrigdanlega og Tvijllaust j Trunne er viss uppa sijn Maalefne, og lætur sig ecke villa, nie fraa snua, med margbreittudum Sidvenium, Þanckum, Lærdome, etc. so sem þeir Efasamu giora, og þeir sem filgia sijnum eigenn Þaunkum.

13. Kasta mier ecke burt fra þijnu Auglite, og tak ecke þinn Heilaga Anda j fra mier.

14. Hugga mig aptur med þinne Hiaalp, Og sa Maattar Ande stirke mig.

15. Þviad Yfertrodslu-Monnum vil eg kienna þijna Vegu, So þad þeir Syndugu snuest til þijn.

16. Frelsa mig j fra þeirre (c) Bloodskulldu, Gud!

GUD! þu sem ert minn GUD og Hiaalpare, So ad mijn Tunga lofe þitt Riettlæte.
(c) (Blodskulldu) Þad er, Af Synd og Sok, med hvørre eg hef Daudann forþient, so sem vier erum al- ler med þeim Hætti fyrer Gude Dauda sseker.
17. DROttinn! opna þu mijnar Varer, So ad minn Munnur kunngiore þitt Lof.
18. Þviad þu hefur ecke neina Villd til Offursins, annars þa munde eg giefa þier þad, Og Brenneoffrenn þocknast þier ecke.
19. Þad Offred sem Gude þocknast er Harmþrungenn Ande, Eitt Harmþrunged og sundurkramed Hiarta þa muntu, Gud! ecke fyrerlijta.
20. Gior þu vel vidur Zion epter þinne Naad, Uppbygg þu Murveggena Jerusalem.
21. Þa mun þier þocknast Offred Riettlætisins, Brenneoffur og allar Foorner, þa munu þeir Uxum offra yfer þijnu Alltare.

## LII. Psalmur.

David klagar yfer Tyrønunum, og þeirra Grimmleika mote Guds Søfnude.

Ein Undervijsan Davids. 2. Fyrer ad syngia, Þa Doeg Edomite kom og kunngiorde Saul þad, og sagde, David kom j Hws Ahimelechs.

3. Hvad trææssar þu þa Tyranne! ad þu fær (a) Skada giort? Med þvi Guds Millde varer enn dagliga.
(a) (Skada) Ad þu tilbyr Olucku ødrum, og giører Skadsemd.
4. Þijn Tunga stundar epter Skada, Og skier med Lygunum, so sem beittur Hnærknijfur.
5. Helldur mæler þu Illt enn Gott, og Fals enn Riettinde, Sela.
6. Feigenn talar þu allt hvad til Skadrædis horfer, Med underforullre Tungu.
7. Þar fyrer mun GUD (b) olldungis med ollu foreyda þier, og þig j sundur slaa, Og j burt slijta þig ur Tialldbudenne, og uppræta af Landenu þeirra Lifendu, Sela.
(b) (Olldungis) Hann telur Fiorar Plaagur upp, Hann skal eckert Hus hafa, ecke Afkvæmi, øngvann Stad, ecke vera j neinu Lande.

8. Og hiner Riettferdugu munu þad siaa, og Ottast þad, og ad honum munu þeir hlæa.
9. Siaa! þad er sa Madur, hvor ed ei hiellt GUD fyrer sitt Trunadar-Traust. Helldur treyste uppa sinn mikla Rijkdoom, Og var Megtugur til Skada ad giora.
10. Enn eg mun blijfa so sem Blooingadur Vidsmiørs-Vidur j Guds Huse, Treystande uppa Guds Miskun, um Allder og ad eylijfu.
11. Eg þacka þier eylijflegana, þvi þu kannt þad vel ad giora, og eg vil vænta þijns Nafns, Þviad þijner Heilager hafa þar af Glede.

## LIII. Psalmur.

David talar (I) um Synder Mannanna, og (II) Um þad Frelse er GUD veiter þeim.

(a) Ein Undervijsun Davids j Kornum til samans fyrer ad syngia.
(a) Uppa Machalath.

I. 2. Þeir Fraavijsu seigia j sijnu Hiarta, Þar er Eingenn GUD, þeir duga eckert og eru Andstyggd ordner j sijnu Vondu Athæfi, þar er ecke sa neirn ad gott giore.
3. GUD leit af Himnum ofan yfer Mannanna Born, ad hann sæe, Hvort nockur være Vijs, sa ed epter GUDe spyrde.
4. Enn * aller eru þeir af fallner, og aller til samans onyter, þar er ei neirn sa gott giore, og ecke eirn. * Rom. 3, 10.
5. Hvort vilia þa þeir Illgiordamenn ecke laata sier segiast? Þeir ed (b) uppsvelgia mitt Foolk, so þeir nære siaalfa sig, GUD akalla þeir ecke.
(b) So sem þeir ete Braud.
6. Enn þar eru þeir hrædder um sig, sem eckert er uggande, þviad GUD j sundurdreifer Beinum þeirra (c) Plaagaranna, þu giorer þa til Skammar, þvi GUD hann forsmaaer þa.
(c) (Plaagaranna) Þad eru þeir sem med Løgmaale og Vallde vilia giora Menn Riettlaata j þeirra eigenn Verkum, Alijka sem Høfuds Menn framm knya og naudga Strijdsfolke sijnu.
II. 7. Ach! ad Hiaalpræded ut af Zion kiæme yfer Israel, og GUD frelsade sitt herteked Folk,

þa

þa munde Jacob gledia sig, og Israel gladvær verda.

## LIV. Psalmur.

Davids (I) Andvarpan um Hiælp; (II) Huggun vid Hiælpena; (III) Þackargiørd fyrer Hiælpena i Neydenne.

Undervijsan Davids, fyrer ad syngia uppa (a) Hlioodfære. 2. Þa þeir af Siph komu, og kunngiørdu Saul, David helldur sig j Fylsnum hiaa oss.

(a) Neginoth.

I. 3. Hiælpa þu mier Gud! fyrer þitt Nafn, og laat mig riett skie fyrer þijna Magt.

4. GUD! Heyr þu mijna Bæn, Hygg ad Mæalenu mijns Munns.

5. Þviad hiner Drambsomu setia sig upp a moote mier, og hiner Forsugu sækia epter minne Sæalu, Og hafa ei GUD fyrer Augum, Sela.

II. 6. Siaa þu, GUD hann hiælpar mier, DROTTinn hann er sa sem annast Sæalu mijna.

7. Hann mun þa Hreckvijse mijnum Ovinum endurgiallda, nidurbriot þu þa fyrer þijna Tryggd.

III. 8. Þa vil eg færa þier Fagnadar Foorner, og þijnu Nafne, DROttinn! Þacker giøra, ad þad er so huggunarsamlegt.

9. Þviad þu frelsar mig ut af allre minne Neyd, so þad mitt Auga sier sijna Villd a mijnum Ovinum.

## LV. Psalmur.

Bæn Davids mote Slægd Falskra Brædra.

Ein Undervijsun Davids, fyrer ad syngia, a (a) Streingia Hlioodfære.

(a) Neginoth.

2. Heyr þu GUD! mijna Bæn, og byrg þig ecke fyrer minne Grætbeidne.

3. Hygg ad mier, og Bænheyr mig, hvørnenn þad eg skielf aumlega og græt.

4. Af þvi ad Ovinurenn hroopar so, og hinn Ogudhrædde adþreynger, þviad þeir vilia giøra mier eina Hreckvijse, og eru mier æakaflega reider.

5. Mitt Hiarta þreyngest j mijnu Lijfe, Og Daudans Otte er yfer mig fallenn.

6. Hrædsla og Skiælfte er yfer mig komenn, Og Skielfingenn er yfer mig fallenn.

7. Eg sagde, Æ! hefde eg Vænge sem Dufa, so ad eg mætte fliuga, og vera einhvørs stadar.

8. Siaa þu, þa skyllde eg hafa mig langt j burt, og j Eydemørkenne blijfa, Sela.

9. Eg skyllde mier flyta, so ad eg undan kiæmest þeim Storme og Vedre.

10. Sundurþyckar giør þu Tungur þeirra, DROTTINN! laat þa fordiarfast, þviad eg sie Præattan og Hatur j Stadnum.

11. Noott og Dag geingur soddan umkring hennar Murvegge, (b) Mæda og Erfide er þar jnne.

(b) (Mæda) Einsomul Hreckvijse og Illska, med hvørre þeir þvinga sig og adra.

12. Skada ad giøra rijker þar fyrer jnnan, Lygar og Svik linna ei aa hennar Strætum.

13. Þott ad Ovinur minn nidrade mier, þa villde eg þad umlijda, Og þo ad Fiandmadur minn hotade mier, þa villde eg geyma mig fyrer honum.

14. Enn þu ert minn Lagsmadur, minn Leidtoge og Kunninge minn.

15. Vid sem vorum Viner til samans ockar a mille, vid geingum j Guds Huse til samans.

16. Daudenn falle fliotlega yfer þa, og ofannstijge þeir kviker j Helvijte, þviad j þeirra Heimelum hafa þeir ecke utan Vondsku sijn a millum.

17. Enn eg vil kalla til Guds, Og mun DROTTENN hiælpa mier.

18. Um Kvølld, Morgna, og Middege vil eg kveina og græta, þa mun hann heyra mijna Raust.

19. Hann frelsar Sæalu mijna j fra þeim sem vilia til vid mig, og utvegar henne Hvijld, þviad þeir eru marger a moote mier.

20. GUd mun heyra, og nidurlægia þa, hann ed bliifur ad eylijfu, Sela. Þviad ei verda þeir odruvijs, Og þeir oottast eige GUd.

21. Þviad sijnar Hendur leggia þeir a hans Fridsama, Og saurga hans Soattmoala.

22. Þeirra Munnur er klockvare enn Smior, og hafa þo Strijd j Sinne, þeirra Ord eru miukare enn Vidsmior, og eru þo nakenn Sverd.

23. * Fleyg þu uppa DROTTinn þinne Ahyggiu, og mun hann þier Atvinnu veita, Og ei mun hann hinn Riettloata æfenlega loata Droo hafa. * 1 Petr. 5, 7.

24. Enn GUd! þu munt steypa þeim nidur j þa Diupu Grøfena, Hiner Bloodgiørnu og Floaroadu munu ei foa sijna (c) Lijfdaga hoalfnad, Enn a þig vona eg.

(c) (Lijfdaga) Hvad þeir taka sier fyrer Hendur ad giøra, edur hafa ad giøra oa sijnum Lijfsdøgum.

## LVI. Psalmur.

Bæn Davids mote Hreckvijse þeirra er hann ofsoktu.

Gyllene Klenodium Davids, af þeirre (a) Moallausre Dufunne medal Okunnugra, Pa Philistei gripu hann til Ga:h.

(a) David hlaut ad vera moallaus sem Dufa, þad er, hann hlaut ad þegia og oaklaga ecke Saul Kong oa millum þeirra Philisteis.

2. GUd! Vertu mier Noadugur, þviad Mennerner vilia nidursockva mier, daglegana þa strijda þeir og þreyngia ad mier.

3. Mijner (b) Oviner nidursockva mier dagliga, þviad marger beriast a moote mier drambsamlega.

(b) Hofgards þienarar Sauls reka mig j Utlegd, svo ad eg hlyt ad vera svo sem utlægur Madur ætijd.

4. Nær ed eg em hræddur þa treyste eg uppa þig.

5. Guds Ord vil eg prijsa, A Gud vil eg treysta, og ecke um mig hræddur vera, Hvad skyllde Holdid giøra mier?

6. Þeir oastrijda daglega mijn Ord, Allar þeirra Hugsaner eru, ad giøra mier til Vonda.

7. Þeir hallda til samans, og sitia til Veide, og athuga mijn Footspor, hvørnenn þeir foae hondlad mijna Soalu.

8. Hvad Illt sem þeir giøra (c) þa er þeim þegar fyrergiefed, Miskunarlaust steype Gud soddann Monnum nidur.

(c) Hvad þeir giøra, þad oa ad vera allt riett.

9. Reikna þu minn Flotta, (d) Hell mijnum Toarum j þijna Flosku, Sennelega þa reiknar þu þau.

(d) Þu veitst hvørsu mørg þau eru, og gleymer þeim ecke.

10. Þa munu mijner Oviner verda til baka ad snua, Nær ed eg kalla þa fornem eg þad, ad þu ert minn Gud.

11. Guds Ord vil eg prijsa, Orded DROTTins vil eg prijsa.

12. A Gud vona eg, og em ei hræddur um mig, Hvad kunna mier Mennerner ad giøra?

13. Þvi hefe eg, Gud! heited þier, þad eg vil þier Packer giøra.

14. Þviad Soal mijna hefur þu frelsad fra Daudanum, Fætur mijnar j fra Hrøsunenne, So þad eg moa ganga fyrer Gude j Liose Lifande Manna.

## LVII. Psalmur.

Bæn Davids mote Grimmd sinna Ovina.

Gyllene Klenodium Davids, ad syngia fyrer (þad hann tortijndest ecke) þa hann flyde fyrer Saul j Hellerenn.

2. Miskuna þu mier, Gud! Miskuna þu mier, þviad a þig treyster Soala mijn, Og under Skugga þinna Vængia þa hef eg mitt Athvarf, þar til ed su (a) Ogiæfann er umlidenn.

(a) (Ogiæfann) Þad er, Skade og Motgangur, sem eg lijd af þeim.

3. Eg kalla til Guds hins Hærsta, Til þess

þess Guds hvor ed a minne Eymd giorer eirn Enda.

4. Hann sender af Himnum ofan, og hiálpar mier ut af þeirra Forsmoan, sem foottroda mig, Sela, Gud hann sender sijna Miskun og Trufeste.

5. Eg ligg med minne Sealu medal Leona, Mannanna Born eru Elldsins Loge, þeirra Tennur eru Spioot og Orvar, og þeirra Tungur hvoss Sverd.

6. Upphef þig, Gud! yfer Himnana, og þijna Dijrd yfer alla Verolldena.

7. Þeir egna Net fyrer mijna Gaungu, og nidur þrickia minne Sealu, þeir grafa Grof fyrer mier, og falla sialfer þar j, Sela.

8. Mitt Hiarta er reidubwed, Gud! mitt Hiarta er reidubwed, þad eg synge og Lof sege.

9. Uppvakna mijn (b) Dijrd, vakna upp Psalltare og Harpa, arla vil eg uppvakna.

(b) (Dijrd) Þad er, Mijner Psalltarar og Dicktar, med hvorium eg dijrdka Gud.

10. DROTTinn! þier vil eg Packer giora medal Folksins, þier vil eg Lof syngia a medal Pioodanna.

11. Þviad þinn Miskunseme er so vijd sem Himenenn er, og þinn Sannleikur so vijdur sem Skijenn ganga.

12. Upphef þig, Gud! yfer Himenenn, og þijna Dijrd yfer alla Verolldena.

## LVIII. Psalmur.

David seger Ogudlegum, ad þeim se Guds Reide og Hegning vijs.

Gyllene Klenodium Davids, ad syngia fyrer, ad hann glatadest ei.

2. Erud þier þa Moallauser, ad þier vilied ecke tala Riettindenn, og dæma hvad Riettvijslegt er, þier (a) Mannanna Born!

(a) Ebraice er þad so. O þu Samkunda! ad þier vilied tala Sannleikann, vilied þier dæma riettelega þier Mannanna Born!

3. Motþroanlega giored þier Ranglindenn j Laudenu, Og erud full-fwser med ydar Hondum til Illsku-verkanna.

4. Hiner Ogudhræddu eru Fraleiter þegar j fra Modurlijfe, þeir Lijugendur fara villt j fra (b) Modurlijfe.

(b) (Modurlijfe) Þad er, Natturann er ill, og Artinn lætur ecke af sinni Art.

5. Þeirra Æde er so sem Hoggormsins Æde, So sem eirn Daufur Eitur-Ormur, sem tilbyrger sitt Eyra.

6. So þad hann heyre ecke Hliood Tofrarans, þess Særingar-Mannsins, sem vel kann ad Særa.

7. Gud! j sundurbriot þeirra Tennur j þeirra Munne, J sundurmola þu, DRottinn! Jaxla Tennur þeirra ungu Leonanna.

8. Þeir munu forganga sem Vatn þad er j burtu flytur, þeir setia til Hæfis med sijnum Pijlum, enn þær bresta j sundur.

9. Þeir forganga, sem Snyellenn dodnar nidur, Lijka sem Otijdugur Burdur Kvinunnar, þa sioa þeir ecke Solena.

10. (c) Adur enn þad ydar Pyrnar eru fullvaxner a Pyrnebuskenum, þa mun þijn Reide svipta þeim j burtu so ferskum.

(c) Adur enn þeir hafa haalfnad þeirra asetning, þa mun Reide Guds nidurbriota þa, enn hiaalpa Riettlaatum.

11. Hinn Riettvijse mun glediast, þa ed hann sier soddann Hefnd, Og mun lauga sijnar Fætur j (d) Bloode hins Ogudlega.

(d) (Bloode) Hefndenn mun vera meire enn nockur gyrnest, so ad sa sem bidur um eirn Blood-dropa Hefndar, hann mun sioa so miked Blood, ad hann mege lauga sig þar j.

12. So þad Foolked mun segia, Hinn Riettferduge hefur sijn Not. Gud er enn nu Doomare a Jordunne.

## LIX. Psalmur.

David (so sem hann være Messias) Bidur i mote Ovinum Guds Kyrkiu.

Gyllene Klenodium Davids (ad hann
glatadest ecke) þa Saul sende og
liet geyma hans Hwos til
ad drepa hann.

2. DROTTinn! frelsa mig j froa Ovi-
num mijnum, og hlijf mier fyrer
þeim sem setia sig upp j mote mier.

3. Frelsa Þu mig froa þeim Illrædis Mon-
num, og hioalpa mier j froa þeim Blood-
gyrugu.

4. Þviad Sioa þu DROTTinn! þeir
umsitia mijna Sealu, Hiner sterku safnast
j moote mier, fyrer utan minn Tilverknad
og Misgiorning.

5. Þeir hlaupa oan mijns Tilverknadar,
og bwa sig ut, Rijs upp og kom j mots vid
mig, og sioa þu þar til.

6. Þu DROTTinn! Gud Zebaoth!
Gud Israels, vakna upp, og vitia heim
allra Heidingia, Vert ecke neinum (a) Mi-
skunsamur af þeim sem so illmannlega breyta,
Sela.

(a) (Miskunsamur) Þad er, Laat ecke þeirra Asetning
hier þocknast, og hioalpa þeim ecke, ad þeirra Il-
ska hafe Frammgang.

7. A Kvolldtijma loattu þa eirnenn aptur
Yla sem Hunda, Og j Stadnum umkring
hlaupa.

8. Sioa þu! þeir þvætta sijn a mille,
Sverd eru j þeirra Vorum, Hvor skyllde
(b) heyra þad?

(b) (Heyra) Þad er, Þeir breyta sem eingenn Gud
sie, sa sem þetta heyre, og eige hugsa þeir, ad þad
mune nockurn Tijma opinbert verda.

9. Enn þu, DROTTinn! munt hlæa ad
þeim, Og ad Hoade hafa allar Heidnar
Þiooder.

10. Fyrer þeirra (c) Magt þa helld eg
mig ad þier, þviad Gud er minn Verndare.

(c) (Magt) Þad er, þeir eru mier Megtugri, þvi
lijt eg a þig.

11. Gud hann tioaer mier (d) rijkuglega-
na sijna Miskunseme, Gud lætur mig sioa
mijna Villd a mijnum Ovinum.

(d) (Rijkuglegana) Þad er, Gud veiter mier meira
Gott enn þeir kunna mig ad skada.

12. J hel sloa þu þa ecke, so ad mitt Folk
forgleyme þvi ei, enn j sundurdreif þeim med
þinne Magt, DROTTinn vor Skiolldur!
og steyp þeim nidur.

13. Lærdomur þeirra er ei utan Synd,
og j sinne Drambseme blijfa þeir samt, Og
predika ecke nema Bolvan og Lygar.

14. Afmoa þu þa oan allrar Miskunar,
afmoa þu þa so ad þeir sieu eckert, Og for-
merke þad, ad Gud sie Stiornare yfer Ja-
cob j allre Verolldu, Sela.

15. Ad Kvollde loat þu þa þar aptur eir-
nenn yla sem Hunda, og umkring hlaupa j
Stadnum.

16. Loat þu þa hingad og þangad epter
Matnum renna, og mogla nær ed þeir ver-
da ei metter.

17. Enn eg vil ut af þinne Magt syngia,
og ad Morgne prijsa þijna Miskunseme, þviad
þu ert mijn Hlijfdar-Vernd, og Athvarf j
minne Neyd.

18 Þier, Minn Gud! vil eg Lof syngia, þviad
þu Gud ert mijn Verndar-Hlijf, og minn
Noadugur Gud.

## LX. Psalmur.

Davids Bæn fyrer Velgengne Gydinga Folks.

Eitt Gyllene Klenodium Davids, fyrer ad
syngia, ut af þvi Gullega (a) Roosar Niste,
ad læra. 2. Þa hann hafde barest vid Sy-
ros af Mesopotamia, og vid þa Syros af
Zoba, þa ed Joab snere aptur, og sloo
þa Edomita j Salltdalnum,
Tolf Þusunder.

(a) (Rosar Nisti) Þad er, Skart edur kostulegt Cle-
nodium, so giort sem ein Ros. Svo nefner hann sitt
Kongsrijke, hvort ed j Sannleik var Gudligt Cle-
nodium edur Niste.

3. Gud! þu sem hefur j burt reked og j
sundurdreift oss, og reidur varst,
Hugga þu oss aptur.

4. Þu sem Jordena hefur skieked og j sun-
dur hrist, Lækna þu hennar Sprungur sem
so er nidurhrunenn.

5. Þviad

5. Þviad þijnu Foolke audsyner þu hardt (Atlæte) þann Vijndryck gafstu oss, ad vier tumbudum um Koll.

6. Enn eitt Teikn hefur þu giefed þeim sem þig oottast, hvort þeir upp settu, og giørdu sig þa ugglausa, Sela.

7. Uppa þad þijner Astviner frelsader verde, þa hiaalpa þu nu med þinne Hægre Hond, og bænheyr oss.

8. Gud hann talar j sijnum Helgedoom, þess hins sama gled eg mig, Og eg vil (b) sundurskipta Sichem, og mæla Dalenn Suchoth.

(b) (Sundur) Þad er, Eg reikna hvad Folk eg hef.

9. Gilead er minn, minn er Manasse, Ephraim er Magt mijns Hofuds, Juda er minn (c) Hofdinge.

(c) (Hofdinge) Þad er, Sa sem Stiornar, þa Fridur er, med Løgum og ecke med Vopnum.

10. Moab er mitt (d) Þvættekieralld, Minn Skoo utriette eg yfer Edom, Philistea syngur mier Sigur-Oop.

(d) (Þvætte Kieralld) Þad er, mier undergiefner.

11. Hvor mun vilia flytia mig ut j eina Ørugga (e) Borg? Hvor mun j burt leida mig allt j Edom.

(e) Borg kallast allt þad sem giort er Øruggt og Ugglaust.

12. Muntu GUD! ecke giora þad, sem oss hefur fordrifed? Og þu GUD fer ei ut med (f) vorum Her!

(f) Eige med vorum Stirkleika, helldur med þijnum Krapte giorer þu þad hvad þu giorer oss.

13. Veit þu oss Fullting j Hormungenne, þviad Mannsins Hiaalp er ongvu nyt.

14. Med Gude vilium vier Hreysteverk vinna, Hann mun vora Ovine undertroda.

## LXI. Psalmur.

Bæn fyrer Yfervalldenu ad GUD vilie vardveita þad og blessa.

Eirn Psalmur Davids, fyrer ad syngia, uppa (a) Hlioodfære.

(a) Neginoth.

2. Heyr þu GUD! mitt Kall, og hygg ad minne Bæn.

3. Hier nidre a Jordu kalla eg til þijn, nær ed mitt Hiarta er j Angist, Ad þu villder færa mig upp a hoatt Biarg.

4. Þviad þu ert mitt Trunadar-Traust, Eirn Øruggur Turn fyrer mijnum Ovinum.

5. Eg vil bua j þinne Tialldbud æfenlega, og vona under þijnum Vængium, Sela.

6. Þviad þu GUD heyrer mijn (b) Heit, þu launar þeim vel sem þitt Nafn oottast.

(b) (Heit) Þad er, Ad eg lofe og akalle þig svo sem eirn Gud, hvoriu vier hofum lofad Gude j þvi Firsta Bodorde.

7. Þu giefur einum Konunge langa Lijfdaga, so þad hans Aar vara ætijd framar og framar.

8. So ad hann ætijd sitie fyrer Gude, Audsyn honum Miskun og Sannleik sem vardveite hann.

9. Þa vil eg þijnu Nafne Lof syngia Eylijflega, So ad eg gialldemijn Heit Daglegana.

## LXII. Psalmur.

David kenner, ad Menn skule treysta Gude alleina, og ecke nockrum Manne.

Psalmur Davids fyrer Jeduthun, ad syngia fyrer.

2. Mijn Soal hefur (a) hliodt um vid GUD, þann er mier hiaalpar.

(a) (Hliodt) Er til frids, lætur GUD raada, møglar ei nie mæler moote GUde, enn lijdur, þeger, og bijdur.

3. Þvi hann er minn Stirkur, mitt Hiaalpræde, mijn Vernd, so þad eckert Ofall fær mier um kollkastad, hvorsu stort sem þad er.

4. Hvorsu leinge þa veited þier aller einum Umsaatur, ad þier jhelslaaed hann, Lijka sem einum hnignudum Vegg, og j sundur rifnudum Mur?

5. Þeir hugsa ad eins hvornenn þeir faae nidurkiæst hann, þeir leggia Kapp a Lygarnar, Tala fagurt med Munnenum, enn bølva j Hiartanu, Sela.

6. Enn mijn Saala hun vonar uppa GUD alleinasta, þviad hann er mijn Von.

7. Hann er mitt Traust, mijn Hialp, og mijn Hlijf, So ad eg mun ei falla.

8. Hia GUde er mitt Hialpræde, mijn Dijrd, mijn Stirktar-Hella, Mitt Athvarf er til Guds.

9. Voned a hann alla Tijma Gott Foolk, Utausid ydar Hiortum fyrer honum, GUD hann er vort Traust, Sela.

10. Enn Mennerner eru þo eckert, Mikelmennenn þau (b) bregdast eirnenn, þeir vega minna enn ecke par, so marger sem þeir eru.

(b) (Bregdast) Þad er, Hvør sig forlætur a Mennena honum slær þad Feil, hvørsu miklir sem þeir nockurn Tijma eru þa er þad einskis verdt um þa, og þad hlytur ad bregdast.

11. Treysted ecke uppa Oriettindenn og Raanglæted, hallded ydur ecke til slijks, sem eckert er, * Vilie ydur Rijkdoomur til, þa heinged ecke Hiartad þar vid.

* 1 Tim. 6, 17.

12. GUD hann hefur mællt eitt Ord, þad sama hef eg nockrum sinnum heyrt, Þad ad GUD alleinasta sie Maattugur.

13 Og þu DROttinn ert miskunsamur, Og * endurgielldur einum sierhvørium epter þvi sem hann hefur Verdskulldad til.

* Mat. 16, 27. Rom. 2, 6. 1 Cor. 3, 8.

## LXIII. Psalmur.

Davids Hiartanleg Gyrnd og Epterlaungun til þeirrar Sønnu Guds Þionustugiørdar.

Psalmur Davids, þa hann var j Eydemorku Juda.

2. GUD! þu ert minn GUD, aarla vakna eg til þijn, mijna Saal þyrster epter þier, mitt Hoild þad langar til þijn J Þurru og Hrioftrugu Lande þar eckert Vatn er.

3. Þar j þeim Stad horfe eg epter þier, j þijnum Helgedoome, Viliande giarnan sia meiga þijna (a) Magt og Dijrd.

(a) Eg villde giarnann vera vid þijna Guds Þionustugiørd, þar þu kroptugur ert, og þu dijrdkast, enn nu hlyt eg ad vera hier a Eydemørk.

4. Þviad þijn Miskun hun er betre enn Lijfed, Mijnar Varer þær lofa þig.

5. Þar j þeim Stad villda eg feigenn lofa þig mijna Lijfdaga, Og j þijnu Nafne mijnar Hendur upphefia.

6. Þad være minn Hiartans Fognudur, og Unadsemd, ad eg þig med gladværum Munne lofa skyllde.

7. Nær ed eg legg mig til Sængur, þa þeinke eg til þijn, nær ed eg vakna, þa tala eg um þig.

8. Þviad þu ert minn Hialpare, Og under Skugga þinna Vængia glediunst eg.

9. Mijn Saala hun aa-heinger þier, Þijn Hægre Hond hun vid Magt helldur mier.

10. Enn þeir sækia epter minne Saalu, til ad yferfalla mig, þeir munu fara burt under Jordena.

11. Þeir munu falla under Sverded, Og Refunum ad Hlutskipte verda.

12. Enn Konungurenn gledur sig j GUde, Hvør ed vid hann sver, hann mun prijsadur verda, Þviad Lygaranna Munnar munu uppstappader verda.

## LXIV. Psalmur.

David bidur her til Drottens, ad hann vilie frelsa hans Lijf, og vardveita hans Nafn.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. Heyr þu Gud! mijna Raust j minne Klogun, Vardveit mitt Lijf fyrer þeim Ognarlega Ovin.

3. Skyl þu mier fyrer Samkundum þeirra Illskufullu, fyrer Flocke þeirra Illgiorda Manna.

4. Hvørier ed sijna Tungu hvetia sem Sverd, Þeir ed med sijnum Eitrudum Ordum so skioota til Hæfis sem med Pijlum.

5. Ad þeir heimuglega skioote þa Froomu, skyndelega þa skiota þeir þa oan alls Otta.

6. Diarfer eru þeir med sijnar vondslegar Raadagiorder, og segia, Hvørsu þeir vilia

Sno-

Snorur leggia, Og segia, Hvor kann ad (a) sioa þær?

(a) (Sioa) Þad er, Gud sier þær ecke sialfur.

7. Þeir dickta Skoalka por, og hylia þau heimuglega, Eru forsleguer og hafa kyndugleg Jllskupor.

8. Enn Gud mun skyndelega skioota þa, So ad þeim mun (b) doatt vid verda.

(b) (Doatt) Ad þeir skulu finna til þess.

9. Þeirra eigenn Tungur munu fella þa, So ad hvor sem þa sier mun giora Skoll ad þeim.

10. Og aller þeir Menn sem þad sioa þeir munu segia, Gud hefur þad giort, og formerkia, ad þad sama er hans Verk.

11. Hiner Riettferdugu munu gledia sig j DROTTne, og treysta uppa hann, Og oll Godfus Hiortu munu hroosa sier þar af.

# LXV. Psalmur.

Þackargiørd Davids fyrer Guds Velgiørninga (I) J þeirre Andlegu, (II) J þeirre Verallдlegu, og (III) i Husstiornar Stettenne.

Lofsaungs Psalmur Davids fyrer ad syngia.

I. 2. GUd! Menn lofa þig j (a) Kirrdum til Zion, Og giallda þier Heitenn.

(a) (Kirrdum) Þad er, j þolinmæde, lydande þeigande hvad ad kiemur.

3. Þu heyrer Bænernar, Þar fyrer kiemur allt Holld til þijn.

4. Vorar Misgiørder þvinga oss hardlega, Þu villder vorar Synder fyrergiefa.

5. Sæll er hann sem þu utvelur, og lætur koma til þijn, ad hann bygge j þijnum Forgarde, Sa hefur rijkuglegt Traust af þijnu Huse, þijnu Heilogu Mustere.

6. Heyr þu oss epter þinne Furdulegre Riettvijse, Gud vor Heilsugiafare! Þu sem ert Traust allra þeirra a Jordu eru, og þeirra þar langt j burt vid Sioafarhafed.

II. 7. Hann sem Fiollenn setur stødugt j sijnum Krapte, Og er (b) utbuenn med Magtenne.

(b) (Utbuenn) Þad er, Til ad giora gott alltijd framar og meir.

8. Þu sem stiller Grenian Sioafarins, Grenian Bylgnaña, og þann Ædegang Pioodanna.

9. So ad þeir sem j þeim sømu Takmørkum byggia eru hrædder af þijnum (c) Teiknum, þu giorer Lystelegt allt hvad sig hrærer, bæde a Morgna, og so a Kvølld.

(c) (Teiknum) Þad er, Allt saman Storfurdulegt Teikn, þa Gud helldur Frid, og afstyrer þeim Ofridsømu, þa ganga og hreifa sier bæde Menn og Fienadur, hvad ecke kann ad skie j Strijdenu.

III. 10. Þu vitiar Landsins, og vøkvar þad, og audgar þad nærsta, Guds (d) Uppsprettu-Brunnur hefur nooglegt Vatn, þeirra Korn þa lætur þu tijngast, þviad so uppbygger þu Landed.

(d) (Uppsprettubrunnur) Þad er, Hans Land og Folk.

11. Þu døggvar þess Akurreinar, og væter þad sem plægt er, medur Døggenne myker þu þad, og Blessar þess Grooda.

12. Þu Koronar Aared med þinne Godgyrne, Og þijn (e) Footspor drijpa af Feite.

(e) (Footspor) Þad er, Hvar hann fer þar vex þad vel.

13. Byggdenn j Eydemørkenne er eirnenn Feit, so ad hun drypur, Og Hoolarner eru umhverfes Lysteleger.

14. Um Volluna er fullt med Saudfie, og Dalerner standa þickvaxner af Korne, So ad Menn glediast og syngia.

# LXVI. Psalmur.

Jsraels Børn verda aminnt (I) til ad þacka Gude fyrer sijnar Velgiørder; og þad (II) epter Davids Dæme.

Eirn Lofkvædis Psalmur, ad syngia fyrer.

I. 2. Synged hatt Lof Gude Oll Lønd, Synged Lof til Dyrdar hans Nafne, prijsed hann Dijrdlega.

3. Seged til Guds, Hvorsu Dasamleg eru

eru þiin Verk? Pad mun þijnum Ovinum
(a) bregdast, fyrer þinne Mikelle Magt.
(a) (Bregdast) Þad er, Ad þeir dyrfast upp þar mote þier.
4. Øll Lønd tilbidie þig, og Loffsynge þier,
Synge Lof þiinu Nafne, Sela.
5. Komed hingad, og siaaed Verkenn
Guds sem so Furdanlegur er med sijn Verk,
medal Mannanna Barna.
6. Hann umsnyr Hafenu j Þurrlende,
so ad Footgangande maa yfer Vatned gan-
ga, Vegna þess hins sama þa gledium vier
oss j honum.
7. Hann drottnar med sijnu Vellde ey-
lijflega, hans Augu lijta a Foolked, Hiner
Fraafollnu munu ecke kunna (b) ad upphefia
sig, Sela.
(b) (Upphefia) Þad er, Þeir skulu ecke vinna nie faa Sigur, hvørsu hꝏtt sem þeir hefia sig.
8. Þier Foolk! Lofed Vorn Gud, Laated
hans Lofgiørd vijdt hliooma.
9. Hann ed Saalum vorum helldur vid
Lijfed, Og lætur ecke Fætur vorar skridna.
10. Þviad Gud! þu hefur reynt oss, Og
profad, so sem þa Silfred verdur kloarad.
11. Þu hefur laated kasta oss j Turnenn,
þu hefur a vorar Lendar eina Byrde lagt.
12. Þu hefur laated Mennenna fara yfer
vort Høfud, Vier høfum komed j Elld og
Vatn, Enn þu utleidder og endurnærd-
er oss.
II. 13. Þar fyrer vil eg med Brenneoffre
ganga j þitt Hws, og giallda þier mijn Heit.
14. Lijka so sem eg hefe mijnum Vørum
til upp loked, og þad minn Munnur hefur
talad j minne Anaud.
15. Feitar Brenneforner vil eg færa þier
af brenndum Hrwtum, Naut og Hafra vil eg
offra, Sela.
16. Komed hingad, heyred til, aller þier
sem otteſt Gud! Eg vil frammtelia hvad hann
hefur giort vid mijna Saalu.
17. Til hans kalla eg med mijnum Mun-
ne, Og eg heidra hann med minne Tungu.
18. Ef ad eg hefda rangann Asetning j
mijnu Hiarta, þa munde DROTTinn ecke
heyra.
19. Þar fyrer þa bænheyrer Gud mig,
Og hyggur ad minne Groatbeidne.
20. Lofadur sie Gud, sa ed ecke burtskufar
minne Bæn, og ecke burtsnyr sinne Miskun
fra mier.

## LXVII. Psalmur.

Spaadomur um Messias, ad hann mune koma i Heimenn.

Eirn Loffsaungs Psalmur fyrer ad syngia
uppa (a) Streingialeik.

(a) Neginoth.

2. Gud sie oss Miskunsamur, og blesse oss,
Hann laate sitt (b) Andlit skijna
yfer oss, Sela.
(b) (Andlit) Þad er, Ad tiaa sig vingiarnlegann med gladværu og naadugu Vidmoote.
3. So ad vier a Jordu þeckium hans
Vegu, A medal allra Heidinna Þiooda
hans Hiaalpræde.
4. Gud! þier þackar Folked, þier þackar
allt Folk.
5. Foolked gledur sig og fagnar, þad
þu (c) dæmer Foolked riettvijslega, og stioor-
nar Lydnum a Jordu, Sela.
(c) (Dæmer) Þad er, Forsvarar og stiornar.
6. Gud! þier þackar Foolked, þier þackar
allt Foolk.
7. Landed giefur sinn Avoxt, Blessa oss,
Gud! Vor Gud!
8. Blesse oss Gud! og øll Verølldenn
otteſt hann.

## LXVIII. Psalmur.

Spaadomur um Messiæ (I) Rettlæte, (II) Miskunseme, og (III) Majestæt.

Loffsaungs Psalmur Davids, fyrer
ad syngia.

I. 2. Gud hann hreife sier upp, so þad
hans Oviner sundurtvistrader verde,
Og þeir ed hann hata, þa flye fyrer honum.

3. Þ burtdrijf þa, sosem þad Reykurenn j burtdrifenn verdur, Lijka sem Vax þad brꝏdnar fyrer Ellde, so hlioota hiner Omilldu ad fyrerfarast fyrer Gude.

4. Enn hiner Riettferdugu munu sig gledia, og fagna fyrer Gude, og ut af Hiarta glediast.

5. Synged Gude, Lofsynged hans Nafne, Giored þeim greidann Veg sem (a) hoglega hier framm fer, DROTTinn er hans Heite, og gleded ydur fyrer honum.

(a) (Hoglega) þad er, A þeim hærstu Fiollum.

II. 6. Hvor ad er Fader Fodurlausra, og Domare Ecknanna, Hann er Gud j sijnu Heilaga Heimele.

7. Eirn Gud sem hinum Einmana giefur fullt Hws Barna, Hvor hina Faungudu wtleider j (b) riettann Tijma, Og lætur hina affollnu blijfa a Þurrlende.

(b) J Belltenum.

III. 8. Gud! þann tijd þu foorst framm fyrer þijnu Folke, þa ed þu gieckst aframm a Eydemorkenne, Sela.

9. Þa skalf Jordenn, og Himnarner druþu fyrer þessum Gude a Sinai, fyrer þeim Gude sem Israels Gud er.

10. Enn nu giefur þu Gud! eitt nꝏdarlegt Regn, og þijna Arfleyfd, sem þornud er, endurlijfgar þu.

11. So ad þijn Dyr meige þar jnne bwa, Gud! þu nærer hinn Fꝏtæka med þijnum Audæfum.

12. DROTTinn hann giefur Orded med miklum Skara Evangelistanna.

13. (c) Konungarner Herskarans eru sijn a mille Viner til samans, og (d) Hws-Prydenn skipter ut Herfangenu.

(c) (Kongarner) Þad eru Postularner sem samþycker eru j Lærdomenum.

(d) Hwsprydenn kallast Hwsfreyann, og merker Christnena Christi Brudur.

14. Nær ed þier ligged med Lidenu til Hernadar, þa liomar þad lijka sem Vænger Dwfunnar, þeir ed leiptra sem Silfur (e) og Gull.

(e) (Silfur og Gull) Þad er, Raudt og Hvijtt, so sem eirn Her synest af Harneskium og Strijdsmerkium.

15. Nær ed sa hinn Almꝏttuge nidursetur hier og þar Konunga þeirra a mille, þa verdur þar biart sem mirkt er.

16. Fialled Guds er eitt (f) friosamt Fiall, Eitt miked og friosamt Fiall.

(f) Friosamt) Þad er a Ebresku, Feitt, þad er eitt gott Land, ecke berir Klettar.

17. Hvad (g) stockved þier stooru Fioll? Gud hann lyster ad bua a þessu Fialle, Og DROTTinn verdur þar ætijd.

(g) Hroosid ydur og treysted uppa ydar Dijrd, 2 Reg. 6, 17. Eph. 4, 8. Christi Oviner verda og eirnen ad hlyda honum.

18. Vagnar Guds eru morg Þusund sinnum Þusund, DROTTinn er a medal þeirra a þvi Heilaga Sinai.

19. *Þu ert j Hædena uppfarenn, og hefur Herleidingena ad Herfange leidt, þu hefur Giafer odlast Monnunum til Handa, Eirnenn fyrer þa hina affollnu, so ad Gud DROTTinn mun þo samt þar j þeim Stad bwa. *Eph. 4, 8.

20. Daglega sie DROTTinn Lofadur, Gud leggur Þunga a oss, Enn hann hiꝏlpar oss og eirnenn, Sela.

21. Vier hofum eirn Gud, sa er hiꝏlpar, Og þann DROTTinn DROTTinn, sem af Daudanum frelsar.

22. Enn Gud hann mun j sundur meria Hofud sinna Ovina, og þeirra (h) Hvirfel sem framm fara j sijnum Syndum.

(h) (Hvirfel) þad er, Rijked og Kiennemannsskapurenn Gydinga, med þvi, ad þeir blijfa j Vantrunne.

23. Þo seiger DROTTinn, A medal þeirra Feitingianna vil Eg sækia nockra, ut ur Diupe Siꝏfarins vil Eg nockra sækia.

24. Þar fyrer mun þinn Footur j Bloode Ovinanna litadur verda, Og þijner Hundar munu sleikia þad.

25. Gud! Menn siꝏ hvar þu frammfer,

hvar þu, Minn Gud og Konungur! framm brunar j Helgedoomenum.

26. Saungvararner þeir ganga first undan, þar næst Spilmennerner medal Meyanna, sem a Bumburnar beria.

27. Lofed Gud DROTTinn j Samkundum, fyrer þann (i) Brunnenn Jsrael.

(i) (Brunnenn) Þad er, Rijked Christi, sem er uppbyriad, utflytur og vex.

28. Þar a mille þeirra drottnar sa Litle BenJamin, Hofdingiarner Juda med þeirra Hoop, Hofdingiarner Sebulon, Hofdingiar Nephthali.

29. Þinn Gud hefur þitt Rijke uppreist, þad hid sama þu villder þu Gud efla fyrer oss, þviad þad er þitt Verk.

30. Fyrer þijns Musteris Saker til Jerusalem, þa munu Kongarner færa þier Gioafur.

31. Straffa þu þad (k) Kvikended j Reyrnum, þann Flock Oxanna a medal sinna (l) Kaalfa, þeirra sem (m) Fottroda vilia fyrer Peninga saker, hann sundurdreifer Folkenu, sem gjarnan vill strijda.

(k) (Kvikinde) Þad er, Fals Lærdoomur med sijnum Hoop.

(l) (Kaalfa) Þad er, Medal þeirra Folks.

(m) (Foottroda) So sem Hestar giora Vatned gruggugt, so þad er ecke dreckande, so troda aller Villumenn, og gruggnga giora Heilaga Ritning.

32. Hofdingiarner af Egyptalande munu koma, Morland mun sijnar Hendur utbreida til Guds.

33. Þier Konunga Rijkenn a Jordu! synged Gude, Lofsynged DROTTne, Sela.

34. Þeim sem þar framm fer a Himnum allavegana j fra Upphafe, Sioa, hann mun sijnum (n) Þrumum Krapt giefa.

(n) (Þrummu) Þad er, Sinne Predikan.

35. Giefed Gude (o) Magtena, hans Dijrd er j Jsrael, og hans Magt j Skijonum.

(o) (Magtina) Þad er Rijkid, Laated hann vera Herra

36. Daadsamur er Gud j sijnum Helgedome, hann er Gud Jsraels, Hann mun Magt og Krapt giefa Folkenu, Lofadur sie Gud.

# LXIX. Psalmur.

Spaadomur um Messias; (I) Hversu Hann klagar yfer sijnnm Ovinum; (II) Bidur a mote þeim; og (III) talar um, hvada Straff ad bued se hans Ovinum.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia, af (a) Roosenne.

(a) Uppa Schoschannim.

I. 2. GUd! hioalpa þu mier, þviad Vatned geingur jnn ad minne Saalu.

3. Eg sock nidur j diupann Saur, þar ed eingenn Botn er, Eg em j diupu Vatne, og Flooded vill dreckia mier.

4. Eg hefe hroopad mig moodann, minn Hals er haas, Synenn forgeingur, þad eg so leinge hlyt ad bijda epter mijnum Gude.

5. Þeir ed mig hata oan Sakar, þeir eru fleyre enn eg hefe Haar a Hofde. Þeir sem eru mijner Oviner Otilbærelega, og skada mig, eru megtuger, Eg vard ad borga þad sem eg rænte ecke.

6. GUd! þu veitst mijna Heimsku, og mijnar Skullder eru ecke duldar fyrer þier.

II. 7. Laat þa ecke til Skammar verda a mier, sem vænta þijn, DROTTinn DROTTinn Zebaoth, Laat þa ei af Skomm rodna a mier, sem leita þijn GUd Jsraels!

8. Þviad þinna vegna ber eg Forsmaan, Mitt Andlit er fullt af Mijnkun.

9. Eg em Framande vordenn mijnum Brædrum, og Okunnugur Bornum minnar Modur.

10. Þviad * Vandlæting fyrer þitt Hus hefur eted mig, Og ** Smaaner þeirra sem þig smaana falla yfer mig.

* Joh. 2, 17. ** Rom 15, 3.

11. Og eg græt og fasta beisklegana, og þar verdur þar ad auk giort Gys ad mier.

12. Eg færde mig j Seck, Enn þeir giordu Spie ad þvi.

13. Þeir sem j Portunum sitia ræda um mig, og vid Oldryckiurnar kveda Menn um mig.

14. Enn

14. Enn eg, DROTTinn! bid til þijn, j Hagkvæmelegann Tijma, GUD fyrer Mikeleik Miskunar þinnar, þa heyr þu mig med þinne Trufastre Hiaalp.

15. Hiaalpa þu mier burt ur þeim Saurendunum, so ad eg sockve ecke nidur, Ad eg frelsadur verde j fra þeim sem mig hata, og ur diupum Vötnum.

16. So ad Vatns-Flooded drecke mier ecke, og Diuped svelge mig ei, Og ad Gaped Pyttsins lukest ei saman yfer mier.

17. Bænheyr þu mig, DROttinn! þvi þijn Miskun er Huggunarsamleg, Snu þu þier til mijn epter Mikeleik Miskunsemda þinna.

18. Og hyl ecke Andlit þitt fyrer Þioon þijnum, þviad eg kvelst, Heyr þu mig snarlega.

19. Naalgastu Saalu mijna, og frelsa þu hana, Frelsa mig fyrer minna Ovina Saker.

20. Þu veitst mijna Forsmaan, Skömm og Hneisu, Mijner Motstödumenn aller eru fyrer þier.

21. Forsmaanenn brytur mitt Hiarta, og kreinker mig, Eg hugde ad, hvort ad nockurn aumkade þar yfer, enn þar er Eingenn, og epter Huggara, enn eg finn öngvann.

22. Og þeir * gaafu mier Gall ad eta, Og Edik ad drecka j mijnum Mikla Þorsta.

* Matth. 27, 34. 48. Joh. 19, 29.

III. 23. * Þeirra (b) Matbord þad verde fyrer þeim ad Snoru, Til Endurgiallds og til eirnrar Gilldru. * Rom. 11, 9.

(b) (Matb rd) Þad er, Þeirra Predikan og Lærdomur þar af þeir byggiast ad fæda sig.

24. Þeirra Augu hliote mirk ad vera, so ad þeir siaae ei, Og Lendar þeirra laat ætijd reika.

25. Uthell þinne Bræde yfer þa, Og þijn Grimmdar Reide hun höndle þa.

26. * Þeirra Bustadur verde j Eyde, Og ei sie þar sa neirn ed bue j þeirra Tiallbudum.

* Gjörningb: Post. 1, 20.

27. Þviad þeir ofsækia þann sem þu hefur lamed, Og hælast um þad, ad þu leggur miog jlla a þijna.

28. Laattu þa hrasa j eina Synd (c) yfer adra, So ad þeir komest ei til þijns Riettlætis.

(c) (Yfer adra) Þad er, Laat eckert vera gott edur riett fyrer þeim.

29. Af skaf þu þa af Book þeirra Lifendu, So ad þeir verde ei uppskrifader med Riettferdugum.

30. Enn eg em Faaraadur og Harmþrungenn, GUD! þijn Hiaalp hun vernde mig.

31. Nafned Guds vil eg prijsa med einum Lofsaung, Og eg vil Haaleitlega heidra hann med Þackargiörd.

32. Þad mun DROTTne betur þocknast, helldur enn eirn Uxe, sa ed hefur Horn og Klaufer.

33. Hiner Faaraadu siaa og gledia sig, Og þeir ed Guds leita, a þeim mun Hiartad lifa.

34. Þviad DROTTinn heyrer hina Faatæku, Og fyrerlijtur ecke sijna Bandingia.

35. Himnarner, Jördenn, og Sioorenn þa lofe hann, Og allt hvad sig hrærer þar jnne.

36. Þviad GUD hann mun hiaalpa Zion, og Borgernar j Juda uppbyggia, So ad Menn bygge þar, og eignest þær.

37. Og Sæded hans Þiona mun hana erfa, Og þeir ed hans Nafn elska munu þar jnne vera.

## LXX. Psalmur.

Davids Bæn um Fullting mote sijnum Ovinum.

Psalmur Davids fyrer ad syngia. til Minningar.

2. Flyt þier GUD! ad frelsa mig, DROTTinn! mier til Hiaalpar.

3. Skammest sijn og ad Skömm verde þeir ed sækia epter minne Saalu, Hlioote þeir ad snuast tilbaka, og verda til Skammar sem ooska mier Jlls.

4. Ad þeir verde til Skammar aptur, þeir sem þar kalla yfer mier, Siaa þar! Siaa þar!

5. Fagne þeir og glediest j þier aller sem ad-

ad þier leita, Og þeir ed þitt Hiaalpraad elska, og med Jafnade segia, Hoaleitlega sie GUD Lofadur.

6. Enn eg em Fataekur og Aumur, GUD! flyt þu þier til mijn, Þviad þu ert minn Hiaalpare og Lausnare, Minn GUD dvel þu ecke!

## LXXI. Psalmur.

Bænar Ord Davids um Hiaalp og Frelse i Ellenne.

A Þig DROTTinn! treyste eg, Laat mig alldrei til Skammar verda.

2. Frelsa mig fyrer þitt Riettlæte, og hiaalpa mier ut, Hneig þitt Eyra til mijn, og hiaalpa mier.

3. Vert mier orugg Hiaalp, hvort eg meige flya ætijd, þu sem lofad hefur mier ad hiaalpa, Þviad þu ert mijn Hella og mijn Borg.

4. Minn GUD! hiaalpa þu mier ut af Hende hinna Ogudhræddu, af Hende hins Rangláata og Tyrannans.

5. Þviad þu ert mitt Traust, DROTTinn DROttinn! mijn Von j fra Ungdome mijnum.

6. A þig hefe eg treyst þegar j fra Modurlijfe, Þu hefur mig utleidt af minnar Modurlijfe, minn Lofstyr er ætijd ut af þier.

7. Eg er morgum ordenn ad Undrun, Enn þu ert mitt Stirktar-Traust.

8. Laat minn Munn þijns Lofs, og þinnar Dijrdar fullann verda daglegana.

9. Burtkasta mier ecke j minne Elle, Yfergief mig ecke þa eg hrorna.

10. Þvi mijner Oviner mæla a moote mier, og þeir ed taka vara a minne Saalu, þeir bera sijn Raad saman.

11. Og segia, GUD hefur yfergiefed hann, Sæked epter og grijped hann, þviad þar er eingenn Frelsare.

12. GUD! vert ecke langt fra mier, Minn GUD! flyttu þier mier til Hiaalpar.

13. Skammest þeir sijn og fyrerfarest, sem eru a moote minne Saalu, Med Skomm og Hneisu munu þeir yferskyggder verda, sem minnar Ogiæfu leita.

14. Enn eg vil alltijd vona, Og vil alltijd auka þinn Lofstyr.

15. Minn Munnur skal kunngiora þitt Riettlæte, Daglegana þitt Hiaalpræde, hvort eg kann ei allt upp ad telia.

16. J Krapte DROTTins DROttins þa geing eg framm, Eg prijsa alleinasta þitt Riettlæte.

17. GUD! þu hefur mig mentad j fra Barndome mijnum, þar fyrer kunngiore eg þijnar Daadsemder.

18. Yfergief þu mig og ei, Minn GUD! j Ellenne, nær ed eg tek graahærdur ad verda, þangad til ad eg kunngiore þinn Armlegg Barnabornum, og þinn Krapt ollum þeim ed enn nu koma skulu.

19. GUD! þitt Riettlæte er haatt, þu sem stora Hlute giorer, GUD! Hvor er þier Lijkur?

20. Þviad þu lætur mig rata j margar og stoorar Mannrauner, og endurlijfgar mig aptur, og sæker mig aptur nedan ur Diupe Jardarennar.

21. Þu giorer mig miog Megtugann, og huggar mig aptur.

22. Þvi þacka eg þier eirnenn med Psalltara Hlioodfære, fyrer þijna Trufeste, Minn GUD! eg syng þier Lof a Horpuna, þu hinn Heilage j Jsrael.

23. Mijnar Varer og Saala mijn, hvoria þu hefur endurleyst, eru gladvær og syngia þier Lof.

24. So yrker og eirnenn mijn Tunga daglega um þitt Riettlæte, þviad skammast meiga þeir sijn, og til Skammar verda þeir, sem minnar Ogiæfu leita.

## LXXII. Psalmur.

Salomons.

Spaadomur um Messias, er munde (I) Medlaka Syndara; (II) Hugga Sorgbitna; og (III) Veita Heidingiunum Naadarsama Vidtoku.

1. GUD! gief þu Konungenum þinn Dom, og þitt Riettlæte Kongsins Syne.

2. So

2. So ad hann leide þitt Folk til Riettlæt=sins, og frelse þijna Fatæka.

3. Latttu Fiollenn Fridenn færa a medal Folksins, og Hoolana Riettlæted.

II. 4. Hann mun hallda þvi Volada Fol=kenu vid Riettinn, og Fatækum hialpa, og (a) Lostunarmennena sundur mola.

(a) (Lostunarmennena) þad er Ofbelldismennena.

5. Þig munu Menn hrædast so leinge sem Solenn og Tungled vara, fra Bornonum og til Barna Barnanna.

6. Ofan mun hann koma lijka sem Dog=genn yfer Ullar (b) Reyfed, so sem Dropar=ner þeir ed vokva Landed.

(b) (Reyfid) So sem Gedeon skiede.

7. A hans Dogum mun bloomgast sa hinn Riettlaate, og mikell Fridur, þangad til ad Tungled er ei mier.

III. 8. Hann mun Drottna fra einu Ha=fenu til annars, og fra (c) Vatnenu, allt til Veralldarennar Enda.

(c) (Vatnenn) þad er, Fra Jordan.

9. Fyrer honum kriupa þeir sem a Eyde=morkunum eru, Og hans Oviner munu Dupted sleikia.

10. Kongarner vid Sioafar=Hafed, og þeir j Eyonum, munu Skeinkingar færa, Kongar ur Rijke Arabia og Seba munu Giafer færa.

11. Aller Konungarner munu tilbidia hann, Aller Heidingiar munu honum þioona.

12. Þviad hann mun frelsa hinn Fatæka, þann ed kallar, Og hinn Faraada sem ongva Hialp hefur.

13. Hann mun Lijknsamur vera hinum Lijtelmagna, og Volada, Og Saalum þeirra Fatæku mun hann hialpa.

14. Hann mun þeirra Saaler ut af Svikrædenu og Ofrijkenu frelsa, Og þeirra Blood mun dyrmætt hallded verda fyrer honum.

15. Hann mun lifa, og Menn munu ho=num giefa af Gullenu ur Rijke Arabia, og alltijd munu Menn fyrer honum tilbidia, daglegana munu Menn lofa hann.

16. A Jordunne ofan a Fiollunum mun Korned þickt standa, þess Avoxtur mun (d) bifa sem Libanon, og friofgast j Stodonum, sem Grased a Jordu.

(d) (Bifa) þad er, Fialled Libanon er þickvaxed af Triaam, og bifast og hrærist þegar Vindurenn blæs, so þickt mun og Evangelium standa og hræɾast i Stodunum, þad er, Evangelium og þeir hiner Christ=nu munu rijkuglegana vaxa og aukast.

17. Hans Nafn mun blijfa æfenlega, so leinge sem þad Solenn varer, þa mun hans Nafn (e) naa til Epterkomendanna, Og þeir munu blessader verda fyrer hann, aller Heidingiar munu hann vegsama.

(e) (Naa) þad er, Menn skulu jafnann predika hans Nafn einn Tijma epter annann, þegar þeir gomlu deya, þa giora Epterkomendurner þad sama.

18. Lofadur sie Gud DROTTinn, Gud Israels, Hann sa ed alleina giorer Daad=semdarverkenn.

19. Og blessad sie hans Dijrdarlega Nafn Eylijflegana, Og oll Lond þau uppfyllest med hans Dijrd, Amen, Amen.

20. Hier endast Bæner Davids, Sonar Isai.

## LXXIII. Psalmur.

Asaphs (I) Forundran a Velgengne Ogudlegra; (II) Upplysing og Lærdomur um Lucku hinna O=gudlegu.

Psalmur Assaphs.

I. Israel hefur enn nu Huggun af Gude, hvor sem ad eins hefur (a) hreint Hiarta.

(a) (Hreint Hiarta) þad er, Þeir sem hallda sier vid hreint og skiært Guds Ord.

2. Enn eg hafde nær hrasad med mijnum Footum, mijn Ganga hafde ad mestu skridnad.

3. Þviad þad moodgadest mier vidur hi=na Sioalfhælnu, þa ed eg saa þad, ad hinum Ogudhræddu veitte so vel.

4. Þviad þeir eru j ongre Daudans Hæt=tu, Helldur standa þeir faster sem onnur Holl.

5. Þeir eru ecke j Ogiæfu sem annad Folk, og verda ecke þvingader sem adrer Menn.

6. Þar fyrer hlytur þeirra Dramb kostulegt ad vera, Og þad rangt þeir giora þad hlytur ad kallast velgiort.

7. Þeirra Persóna þrutnar sem annar Istrumage, þeir giora hvad hellst þeir hugsa.

8. Þeir ovirda alla Hlute, og leggia þar illt til, tala og lasta af Hædenne.

9. Hvad þeir tala þa hlytur þad af Himnum talad ad vera, Hvad þeir segia þad hlytur a Jordu Magt ad hafa.

10. Þar fyrer (b) feller Alþijdu-Folked sig vid þa, Og rennur ad þeim Hopum saman so sem Vatn.

(b) (Fellir) Eda, þar fyrer snyr hans Folk hingad aptur, og þar munu ut þrickiast heiler Bikarar fuller af Vatne til þeirra.

11. Og segia, Hvad skyllde Gud hyrda um þa? Hvad skyllde Sa hinn Hæsté skeyta um þa?

12. Sioa þu! þad eru hiner Ogudhrædsdu, þeir hafa Lucku j Verolldinne, og verda Rijker.

13. Skal þad þa til einskis vera, ad mitt Hiarta lifer ostraffanlega, og ad eg þvæ mijnar Hendur j Sakleysenu.

14. Og em þvingadur daglegana, og mijn Hegning er alla Morgna þar.

II. 15. Eg hafde ad mestu eirnenn lijka sagt, so sem þeir, Enn sioa þu, þar med þa hefde eg fordæmt oll þijn Born, sem nockurn Tijma vered hafa.

16. Eg hugsade um þad, hvort ad eg giæte skiniad þad, Enn þad var mier ofþungt.

17. Allt þar til eg gieck jnn j (c) Helgedomenn Guds, Og hugde ad þeirra Æfelokum.

(c) (Helgedom) Þad er, Þegar Menn heyra Guds Ord, og læra riettilega ad skilia soddann Efne.

18. Enn Þu setur þa uppa hid Hala, Og steyper þeim nidur j Grunn.

19. Hvornen verda þeir so skyndelega ad ongvo? Þeir forganga, og taka eirn Enda med Skielfingu.

20. Lijka sem eirn Draum, þa eirn vaknar upp, eins þa giorer þu DROTTinn, þeirra (d) Mind j Borgenne Forsmoada.

(d) (Mind) Þad er, Þeirra Tijmanleg Umgeingni hvor ad ei er utann ein Asynd og Mind.

21. Enn þad angrar mig j Hiartanu, og þad stijngur mig j mijnum Nyrum.

22. Þad eg hlyt eirn Gickur ad vera, og eckert ad vita, Og verd so ad vera sem onnur Skinlaus Skiepna fyrer þier.

23. Þo blijf eg samt med Jafnade hia þier, Þviad þu helldur mier vid mijna Hægre Hond.

24. Þu leider mig epter þijnu Raade, og medtekur mig endelega til Æru.

25. Nær ad eg hefe ad eins Þig, þa hyrde eg eckert um Himen og Jord.

26. Þo ad eirnenn mitt Lijf og Saal vanmegnest, þa ertu þo Gud alla Tijma mitt Hiartans Traust, og mitt Hlutskipte.

27. Þviad sioa þu, Ad þeir sem fra þier vijkia munu fyrerfarast, þu glatar þeim ollum sem Hooraner drya a moote þier.

28. Enn þad er mijn Glede, ad eg helld mig til Guds, og set mitt Traust a DROTtinn DROTTinn, Ad eg kunngiore oll þijn Verk.

## LXXIV. Psalmur.

Bæn um Frid fyrer Guds Kyrkiu, og Hennar Vern dan mote Ovinum Guds Ords.

Undervijsun Asaphs.

Gud! Hvar fyrer utdrijfur þu oss so med ollu? Og ert so grimmlega reidur vid Saude þijns Haglendes.

2. Minnstu a þijna Samkundu, þa ed þu hefur fordum Tijd utvegad, og þier til Arfleifdar endurleyst, a Fialled Zion, a hvoriu þu bygger.

3. Trodtu þa under Footum, og steyp þeim med ollu nidur j Grunn, Ovinurenn hefur

hefur alla Hlute fordiarfad j Helgedomenum.

4. Þijner Mootstodu-Menn grenia j þijnum (a) Hwsum, og setia sijn Skwrgod þar jnn.

(a) (Husum) Þad er, Skoolum og Samkunduhusum, þar sem Guds Ord er kient.

5. Menn sioa þad gliaer a Axernar þar uppe yfer, so sem j Skooge være hoggved.

6. Og sundurhoggva so allt þess Snickara Verk, Med (b) Biilum og Breidoxum.

(b) Arngeyrum og Homrum.

7. Þinn Helgedom brenna þeir upp, Heimele þijns Nafns saurga þeir nidur ad Grunne.

8. Þeir segia j sijnu Hiarta, Latum oss ræna þa, þeir uppbrenna oll Guds (c) Hws j Landenu.

(c) (Hws) Þeir uppbrenna oll Guds Hws, þad er Stade, þar sem Gud hefur sitt Ord, so sem j Skoolunum.

9. Vor Teikn sioaum vier ecke, og Einginn Prophete predikar nu leingur, og Einginn Lærefader kienner oss leingur.

10. Oh Gud! Hvorsu leinge þa skal sa Motstandarenn brijgsla? Og sa Ovinurenn svijvirda þitt Nafn so med ollu?

11. Hvar fyrer snyr þu þinne Hende hier fra, og þinne Hægre Hende so med ollu j burt fra þijnu (d) Skaute?

(d) (Skaute) Þad er Musteri, j hvoriu ad Gud samansafnar og uppfræder sitt Folk so sem Moder ber sitt Barn og giefur þvi ad sivga.

12. Enn Gud er minn Kongur þegar fra Ondverdu, hann sa sem alla Hioalp giorer þa sem a Jordu skier.

13. Þu j sundurskipter Hafenu fyrer þinn Krapt, og þu j sundurslær Hofudenn (e) Drekanna j Vatnenu.

(e) (Dreka) Þad er Vijkingana, sem var Pharao, og hans Hofdingiar, þad merkia og Hvalsiskarner.

14. Þu sundurslær Hofud Hvalfiskanna, og giefur þa til Fædu Folke Eydemerkurennar.

15. Þu lietst (f) ut renna Brunna og Lækæna, þu lietst uppþorna hin strijdu Vatnsfollenn.

(f) (Utrenna) Þad er, Gud uppbigger og bæter Lond og Borger, og brytur þad nidur aptur.

16. Dagurenn og Nottenn þau eru þijn, Þu (g) velldur þvi þad bæde Solenn og Stiornurnar hafa sinn vissann Gang.

(g) Tilbiost Liosid og Soolena.

17. Þu setter sierhvoriu Lande sijn Landamerke, Sumar og Vetur giorer þu.

18. So minnstu a þad, ad Ovinurenn svijvirder DROTTinn, og þad Foavijslegt Folk lastar þitt Nafn.

19. Gief þu ecke Dyronum Saaler þinna Turtel-Dwfna, og forgleym ecke þijnum Foatækum Kindum so med ollu.

20. Minnstu a Saattmaalann, (h) þviad Landed er allavegana aumlega foreydt, og Hwsenn nidurbrotenn.

(h) Þviad þeir mirkvu Stader j Landenu eru fuller af Ræningia Bælum.

21. Lat þu ecke hina Umkomulitlu med Hneysu þar fra ganga, þviad hiner Foatæku og Voludu lofa þitt Nafn.

22. Gud! bw þig til, og framm filg þijnu Maalefne, Hugleid þu þa Forsmaan sem þier af þeim Foavijsu daglega veitest.

23. Forgleym ecke Hroopenu Ovina þinna, þviad Ofsenn þinna Mootstodu-Manna verdur þess stærre sem leingur (alijdur).

## LXXV. Psalmur.

Asaph framsetur (I) so sem Eitt Samtal med Guds Kyrkiu, og Messias, sem er Hofud-Kyrkiunnar. (II) Fyrerseger Straff og Bolvan er se buinn Ovinum Guds Kyrkiu.

Psalmur og Dicktur Asaphs, ad hann ei fyrerfærest, ad syngia fyrer.

I. 2. Vier þockum þier GUD! vier þockum þier, Og kunngiorum þijnar Daadsemder, ad þitt Nafn er so (a) Naalægt.

(a) (Naalægt) Þad er, Ad þad bæde Skiott og Fliootthioalpar oss.

3. Þviad a sijnum Tijma mun eg riett dæma.

4. Lan-

4. Landed (b) skielfur, og aller þeir ed þar
jnne byggia, Enn þess (c) Stoolpum helld Eg
fast, Sela.

(b) Smellteft.

(c) (Stoolpum) þad er, þeir godu skielfast fyrer Gude, enn hann stirker þa þo, enn Ogudhrædder eru skollter og fyrerfarast.

II. 5. Eg sagde til þeirra Moalskaps-miklu,
Hælest ecke so um, Og til hinna Ogudlegu,
Stæred ydur ecke ut af Magtenne.

6. Troassed ecke so hoatt uppa ydar (d)
Magt, Taled ecke helldur reygingslega.

(d) (Magt) Sa Ebreske Textinn kallar þad Horn, hvad er merker Magt.

7. Pad hefur øngva Neyd, hvørke af Au-
strenu, edur af Vestrenu, Nie af Fiollunum
j Eydemørkenne.

8. Pviad GUd er Domarenn, Hann ed
nidurlæger eirn, og upphefur annann.

9. Pviad * DROTTinn hefur eirn Bi-
kar j Hende og fullt skeinktann af sterku Vijne,
og (e) skeinker af þeim hinum sama, Enn þeir
Ogudhræddu hliioota aller af ad drecka, og
Dreggiarnar af ad supa.

* Opb: B: 14, 16. c. 16, 19.

(e) (Skeinker) þad er, Hann giefur sierhvørium sinn Mæler hvad hann a ad lijda, enn Dreggiarnar geymast þeim hinum Ogudhræddu.

10. Enn eg vil kunngiora eylijflegana, Og
Lofsyngia Gude Jacobs.

11. Og eg vil allt Valld hinna Ogudlegu j
sundurbrioota, So þad Vallded Riettloatra
upphafed verde.

## LXXVI. Psalmur.

Asaph kenner ad Messias se Høfud sinnar Kyrkiu, Herra, og Sa ed haua vernde.

Psalm-Saungur Asaphs, fyrer ad syngia a
(a) Streingia Hliodfære.

(a) Neginoth.

2. GUd er Kunnugur j Juda, J Jsrael
er hans Nafn Vegsamlegt.

3. Til Salem er hans Tialldbud, og hans
Heimele til Sion.

4. Par sundurbrytur hann Ørvarnar Bo-
gans, Skiolld, Sverd og Styriolld, Sela.

5. Herrlegre og Megtugre ertu, Helldur
enn þau (b) Ræansfiollenn.

(b) (Ræansfioll) So kallar hann þau stooru Megtugu Rijke, sem var, Syria, Ægyptus, Babylon, sem Løndenn brutu under sig med Strijde, og ræntu þau so til sijn.

6. Hiner Forsugu hliioota rænter ad vera, og
ad sofna ut af, Og allt Strijdsfolked hlytur
ad loata Hendurnar (c) sijga.

(c) (Sijga) þad er, Hafa øngvar Hendur fyrer sier framar, kunna ecke ad strijda, þeir eru magnlauser og mistreystande.

7. Af þinne Straffan, GUd Jacobs! sijga
j Svefn bæde Hestar og Vagnar.

8. Ognarlegur ertu, Hvør fær stadest fy-
rer Þier, nær ed þu reidest?

9. Nær ed þu lætur Doms Adkvæded hey-
rast af Himnum, þa skielfest Jardrijked og
hlioodnar vid.

10. Hvønær ed GUd tekur sig upp ad dæ-
ma, þad hann hioalpe øllum Foaroadum a
Jordu, Sela.

11. Nær ed Mennerner æda j giegn þier, þa
aflar þu Vegsemdar, Og þo þeir oolmest enn
meir, þa ertu enn nu utbuenn.

12. (d) Heited, og hallded þad DROtt-
ne ydar Gude, þier aller sem hier j kring erud,
Færed Giafer þeim Hrædelega.

(d) (Heited) þad hann skule vera ydar GUd, epter Hliodan firsta Bodords, og heited ecke a Hellagar edur giøred ønnur Heit.

13. Hann sem Huglausa giører Hofdingia-
na, Og Hrædelegur er a medal Konganna a
Jordu.

## LXXVII. Psalmur.

Asaph talar (I) um Hriggd og Motlæte Gudhræd-
dra; og (II) um þeirra Hugsvoolun.

1. Psalmur Assaphs fyrer Jeduthun fyrer
ad syngia.

I. 2. Eg hroopa til Guds med minne Rau-
stu, Til Guds hropa eg, og hann
bænheyrer mig.

3. A

3. A mijnum Motgangs-Tijma leita eg til DROttins, Mijn Hond er utriett a Naattar-Þele, og lætur ei af, Þviad Saala mijn vill sig ecke hugga laata.

4. Nær ed eg em hriggur, þa hugsa eg til Guds, Nær mitt Hiarta er j Angist, þa tala eg; Sela.

5. Þu helldur mijnum Augum so þau vake, So Maattlaus em eg, þad eg giet ecke talad.

6. Eg þeinke aa þa Gømlu Tijmana, aa þau fyrre Aarenn.

7. A Naattar Tijma hugsa eg til mijns Hlioodfæris, og mæle vid mitt Hiarta, Minn Ande skal rannsaka.

8. Mun þa DROTTinn Eylijflega fordrijfa? og aungva Lijkn nu leingur audsyna?

9. Eda er nu hans Miskunseme med øllu utgiørd? og hafa Fyrerheitenn teked Enda?

10. Hefur GUD þa forgleymt Naadugur ad vera, og sijna Miskunseme fyrer Reide inne luckt? Sela.

II. 11. Enn þo sagde eg, Eg hlyt þad ad lijda, Hægre Hond hins Hærsta kann øllu um ad (a) breyta.

(a) (Breyta) Þad er, Þo eg syrge mig Daudann þa kann eg þvi eige um ad breyta.

12. Þar fyrer hugleide eg Verkinn Drottins, Jaa, eg þeinke um þijn enn fyrre Furduverk.

13. Og tala um øll þijn Verk, Og sege ut af þijnum Giørningum.

14. Gud! þinn Vegur er (b) Heilagur, Hvør er so Volldugur GUD sem þu GUD ert.

(b) (Heilagur) Þad er, Hann er hulenn, so sem þa Gud hann lijfgar i Daudanum, og er naalægur þa hann þyker vera fiarlægastur, þetta kann Skinsemenn ecke ad skilia, þad er øfheilagt og huled.

15. Þu ert sa GUD sem Daadsemdar Verkenn giører, Þu hefur Auglyst þijna Magt a medal Foolksins.

16. Volldulega hefur þu frelsad þitt Folk, Jacobs og Josephs Børn, Sela.

17. Vøtnenn þau saau þig GUD! Vøtnenn þau saau þig og urdu Angurfull, og Underdiupenn uppæstust.

18. Þau þickvu Skijenn helltu ofann Vatne, Skijenn gaafu Reidarþrumur so ad Elldingar flugu framm.

19. Reidarþrumur hlioodudu af Himne, þijn Leiptring skein yfer Jordena, So ad Jardrijked þad hrærdest vid, og hristest þar vot af.

20. Þinn Vegur var j Sianum, og þinn Gøtustijgur j miklum Vøtnum, Og þijn Footspor þecktust þo ecke.

21. Þu utleidder þitt Foolk, svo sem eina Sauda-Hiørd, Fyrer Moysen og Aaron.

# LXXVIII. Psalmur.

Asaph talar um Guds Rettlæte og Miskunseme vid Gydinga Folk.

Undervijsun Asaphs.

Heyr Mitt Folk mitt Løgmaal, Hneiged ydar Eyru til Rædu mijns Munns!

2. Eg * vil mijnum Munne uppluka til Ordskvida, Og þa hina gomlu Tilburde ut segia. * Matt. 13, 35.

3. Sem vier høfum heyrt og vitum af, og vorer Forfedur hafa sagt oss.

4. So vier skylldum ei hylia þad fyrer þeirra Børnum sem epter koma, og kunngiøra Lof DROTTins, og hans Magt og Daadsemder, þær ed hann hefur giørt.

5. Hann upphoof eitt Vitnisburd j Jacob, Og gaf eitt Løgmaal j Jsrael, Hvørt ed hann baud Fedrum vorum ad kienna Børnum sijnum.

6. So ad Epterkomendurner lærdu, Og þau Bornenn sem enn skylldu borenn verda, nær þau upp yxe, ad þau kunngiørdu þad og so sijnum Børnum.

7. So ad þau settu sijna Von til Guds, Og gleymdu ecke Guds Verkum, og hielldu hans Bodord.

8. Og ad þeir verde ecke lijka sem Fedur þeirra, Fravikenn og Ohlijdug Ætt, hvørrar

Hiarta þad ecke var fast, og þeirra Ande hiellt ecke trulega vid GUD.

9 So sem þad (a) Ephraims Børn, þau ed briniud Bogann færdu, frafiellu a (b) Ofridar Tijmanum.

(a) Fyrir KongaØlldena var ædsta Rijkes-Stioorn hia ætt Ephraim, þeir bæru Vopn og Boga. Enn af þvi þeir voru Drambsamir, og treystu ecke GUdi, þvi var hun fra þeim tekenn, og Silo eydelogd, og þad var vidriett aptur j Juda.

(b) Ofrid kallar hann Freistaner, Voda og Mootgang.

10. Scattmoalann Guds hielldu þeir ecke, Og j hans Løgmoale villdu þeir ei ganga.

11. Og þeir forgleymdu hans Verkum, Og hans Doadsemdarverkum sem hann hafde audsyndt þeim.

12. Fyrer Fedrum þeirra giorde hann Furduverk a Egyptalande, A Zoans Vøllum.

13. Hann j sundurskipte Hafinu, og liet þa þar j giegnum ganga, Og sette upp Vatned lijka sem Murvegg.

14. A Dagenn, leidde hann þa med Skijenu, Enn a Nœturnar med biortum Ellde.

15. Hann j sundurklauf Klettana j Eydemørkenne, Og gaf þeim Vatn ad drecka yfergnæfanlega.

16. Og hann liet Læke utrenna af Hellunne, So ad þeir flutu ofann sem adrer Straumar.

17. Þo syndgudu þeir enn framar meir a møte hønum, Og til Reide reittu hinn Hæsta a Eydemørkenne.

18. Og þeir freistudu Guds j siinum Hiørtum, Þad þeir heimtu Fædslu fyrer siinar Sælur.

19. Og mælltu a moote GUde, og sogdu, Joa, Skyllde GUD kunna Matbord tilbua j Eydemørkenne?

20. Sioa þu, Hann hefur ad sonnu Hellunna sleiged, so ad Vatned flaut ut, Og Lækerner dundu ut. Enn hvørnenn skal hann kunna Braud ad giefa, og siinu Folke Kiøt ad foa.

21. Þa ed DROttinn heyrde nu slijkt, gramdest hønum þetta, Og Elldur toof ad tendrast j bland Jacob, Og Reide kom yfer Israel.

22. Þad þeir trudu ecke a GUD, Og vonudu ecke uppa hans Hioalpræde.

23. Og hann baud Skijonum þaruppe, og upplauk Dyrum Himensins.

24. Og hann liet rigna Man yfer þa til Fædslu, og gaf þeim Himna-Braud.

25. Þeir oatu Einglabraudeð, Hann sende þeim gnooglega Fædslu.

26. Hann liet bloasa Austann Vind under Himnenum, og fyrer sinn Krapt hrærde hann Sunnann-Vindinn.

27. Og liet Kiøte yfer þa rigna, so sem Dupte, og Fuglana sem Sand hia Sioo.

28. Og hann liet þa allstadar nidur detta a millum Herbooda þeirra, þar ed þeir biuggu.

29. Þeir oatu þa og urdu aller offadder, Hann liet þa fa siina Lyst.

30. Nær ed þeir høfdu nu hafst siina Lysting, og oatu enn nu þar af,

31. Þa kom Guds Reide yfer þa, Og j Hel sloo þa ædstu af þeim, og drap þar nidur hina bestu j Israel.

32. Enn umframm allt þetta þa syndgudust þeir enn framar meir, og truodu ecke a hans Doadsemdar-Verk.

33. Þar fyrer liet hann þa deya j burtu, so ad þeir (c) odludust eckert, og hlutu um alla siina Lijfdaga ploagader ad vera.

(c) (Ødludust eckert) Þad er, Þeir nadu ecke j þad Fyrerheitna Land, og voru forgiefins utfarner af Egyptalande.

34. Nær ed hann deydde þa, leitudu þeir hans, og sneru sier oarla til Guds.

35. Og þeir hugsudu, þad Gud hann være þeirra Hioalp, og Sa hinn Hæsste Gud þeirra Frelsare.

36. Og þeir smiødrudu ad hønum med Munne siinum, og lugu ad hønum med siinum Tungum.

37. Enn þeirra Hiarta var ecke fast til

hans, og ecke hielldu þeir trulega vid hans Saattmaala.

38. Enn hann var Miskunsamur og fyrergaf Misgiordena, og afmaade þa ecke, og j burt snere optsinnes sinne Reide, og liet ecke alla sijna Reide framm ganga.

39. Þviad hann þeinkte a þad þeir være Holld, og sa Vindur ed j burt lijdur og ecke aptur kiemur.

40. Miøg opt reittu þeir hann j Eydemorkenne, og egndu hann til Reide a Eydestodunum.

41. Þeir freistudu Guds einatt aptur, og villdu (d) kienna þeim Heilaga j Jsrael.

(d) Þeir settu Gude Stund og Maata, nær og hvørnenn hann skyllde strax Nærverande hialpa þeim, enn ecke villdu þeir trua a þad Okomna, stundum Gyrntust þeir Kiøt, stundum Vatn, stundum Brauð. Enn ad setia so Gude fyrer, og kienna hønum hvad hann skal giora, þad heiter ad freista Guds.

42. Þeir minntust ecke a hans Hond, A þeim Deige ed hann frelsade þa j fra Ovinunum.

43. Hvorsu hann hefde þa giort sijn Teikn j Egyptalande, og sijn Daadsemdar Verk j Landenu Zoan.

44. Þa ed hann umsnere þeirra Votnum j Blood, Svo ad þeir gaatu ecke ur sijnum Lækium drucked.

45. Þa hann utsende medal þeirra Jllsku-Ormana sem aatu þa, og Poddurnar sem fordiorfudu þa.

46. Og gaf þeirra Avoxtu þeim Grasmodkum, og þeirra Kornsæde Eingesprettunum.

47. Þa ed hann þeirra Vijnvidu medur Hagle nidursloo, og þeirra Morbertrie med (e) Froste.

(e) Haglsteinar.

48. Þa ed hann med Hagle nidur slo þeirra Fienad, og Hiarder þeirra med Elldenum.

49. Þa ed hann j sinne Heiptar-Bræde (f) utsende Jllsku-Einglana a medal þeirra, og liet þa æda, og olmast og jllt af sier giora.

(f) (Utsende) þad er, Hann sende sijna brennande Reide yfer þa, Styggd, Grimmd og Angist, sem sendest med þeim jllu Einglum.

50. Þa ed hann liet sijna Reide frammganga og þirmde ecke Saalu þeirra fyrer Daudanum, og liet þeirra Fienad j Drepsott deya.

51. Þa ed hann sloo alla Frumgietninga a Egyptalande, þa firstu Erfdina j Byggdum Hams.

52. Og hann liet sitt Foolk þadan burt fara sem Saude, og leidde þa sem adra Hiørd a Eydemørkenne.

53. Og hann utleidde þa Ugglaust, svo ad þeir Ottudust ecke, Enn Ovine þeirra hulde Sioorenn.

54. Og hann jnnleidde þa j sijn Heilogu Landamerke, Til þessa Fiallsins sem hans Hægre Hond hefur utvegad.

55. Og j burt dreif Foolked fyrer þeim, og liet þeim utskipta Arfleifdinne, og liet j þeirra Hybijlum Jsraelis Ættkvijsler bwa.

56. Enn þeir freistudu og reittu Gud hinn Hærsta, og hielldu ecke hans Vitnisburde.

57. Og fiellu aptur til baka, og forsmaadu alla Hlute, lijka sem Fedur þeirra, og hielldu ecke meir enn annar Laus Boge.

58. Og þeir reittu hann til Reide med sijnum Hædum, og ertu hann med sijnum Afgudum.

59. Og þa ed GUD heyrde þad, þa upptendradest hann, og forlagde Jsrael hardla miøg.

60. So ad hann yfergaf sinn Bwstad j Silo, þa sijna Tiallbwd þar ed hann jnne byggde medal Mannanna.

61. Og gaf þeirra (g) Magt j Herleidingena, og þeirra Vegsemd j Hendur Ovinarins.

(g) (Magt) Þad er Saattmaals Ørkina, uppa hvoria þeir treystu.

62. Og yfergaf sitt Folk under Sverded, og vard gramur sinne Arfleifd.

63. Þeirra Yngesmenn upp aat Elldurenn,

renn, og þeirra Meyar hlutu Ogiptar ad blijfa.

64. Prestar þeirra fiellu fyrer Sverde, og þar voru þær ongvar Eckiur sem harma skylldu.

65. Og DROTTinn hann vaknade upp so sem eirn sofande, lijka sem eirn sterkur hroopar af Glede, sem kiemur fra Vijnenu.

66. Og hann sloo sijna Ovine j Bakhlutenn, og lagde a þa æfenlega Skomm.

67. Og hann kastade j burt Tialldbwd Josephs, og utvalde ecke Ættkvijsl Ephraims.

68. Helldur utvalde hann Ættkvijsl Juda, Fialled Zion, hvort hann elskade.

69. Og biggde sinn Helgedom hoatt, so sem þad Land hvort ed æfenlega skal fast standa.

70. Og hann utvalde sinn Pion David, og took hann j burt fra Sauda Jotunum.

71. J burt fra þeim Miolkande Saudum took hann hann, ad hann skyllde fæda Jacob hans Folk, og Jsrael hans Erfd.

72. Og hann fædde þa eirnenn med allre Tryggd, og styrde þeim med allre Kostgiæfne.

## LXXIX. Psalmur.

Bæn Asaphs mote Fiandmønnum Sannleiksins, og Jmote Tyrønnunum.

Psalmur Asaphs.

GUD! hiner Heidnu eru jnnkomner j þijna Arfleifd, þitt hid Heilaga Mustere hafa þeir saurgad, og af Jerusalem Steinhrwgu giort.

2. Lijkame þinna Pionustumanna hafa þeir Fuglum under Himnenum til oatu giefed, og Holld þinna Heilagra Hrædyrum j Landenu.

3. Þeir uthelltu Bloode j kring Jerusalem, lijka sem Vatne, og þar var sa eingenn sem jardade.

4. Vorum Noagronnum erum vier ad Forsmoan ordner, Ad Spotte og Hoade þeim sem j kringum oss eru.

5. DROTTinn! Hvorsu leinge villt þu so olldungis reidur vera? Og loata þitt Vandlæte brenna sem Elld.

6. Helltu þinne Grimmd ut yfer Heidnar Pioodder, þær sem ecke þeckia þig, og yfer þau Kongarijkenn sem ei oakalla þitt Nafn.

7. Þviad þeir hafa Jacob uppeted, og hans Hwos j eydelagt.

8. Minnstu ecke a vorar umlidnar Misgiorder, Miskuna þu oss snarlega, þviad vier erum miog þunner ordner.

9. Hioalpa þu oss, GUD! Vor Hioalpare, fyrer Dijrdar saker þijns Nafns, Frelsa þu oss, og fyrergief þu oss vorar Synder, fyrer þijns Nafns saker.

10. Þvi lætur þu hina Heidnu segia, Hvar er nu þeirra GUD? Loattu medal Heidingianna kunnuga vera fyrer vorum Augum Hefndena Bloodsins þinna Pionustu-Manna, þad sem uthellt er.

11. Loat fyrer þig koma Andvarpan þeirra hinna Fongudu, Epter þijnum mikla Armlegg, þa bijvara þu þau Bornenn (a) Daudans.

a) Þau ed daglega deydd eru, hvort epter annad, so sem skylldu þau oll afmoast.

12. Og gialltu vorum Noagronnum Siofallt aptur j þeirra Skaut, þeirra Forsmoaner, þar ed þeir hafa þig med lastad DROTTinn!

13. Enn vier, þitt Folk, og Sauder þins Haglendis, þockum þier eylijflegana, og kunngiorum þinn Lofstyr um Alldur og Æfe.

## LXXX. Psalmur.

Bæn Asaphs, um Vardveitslu og Vidhalld Guds Kyrkiu.

Psalmur Asaphs ut af (a) Roosarnistenu fyrer ad syngia.

(a) Roosarniste er Klenodium giort sem Roos, og merker Jsraels Kongs Rijke.

2. Heyr þu Hyrder Jsraels! þu sem giæter (b) Josephs so sem Sauda, Audsyn þig, þu sem situr yfer Cherubim.

(b) (Josephs) Þad er, Jsraels Rijkis.

3. Uppvek þijna Magt, þu sem ert fyrer (c) Ephraim, BenJamin og Manasse, og kom oss til Hiaalpar.

(c) (Ephraim) Þad er, Yfer Nordarstoolnum, a bak vid hvorn þessarÆtter Israels, hofdu þeirra Land Tiolld.

4. Gud! hugga oss, og laat lioома þitt Andlit, þa munum vier vid rakna.

5. DROTTinn, Gud Zebaoth! Hvørsu leinge villtu reidur vera yfer Bænum þijns Lijds?

6. Þu fæder þa med Harma-Braude, og birlar þeim Drick med stoorum Mæler fullum Taara.

7. Þu setur vora Naagranna oss til (d) Preattunar, og vorer Oviner þeir giora Spie ad oss.

(d) (Preattunar) Þad er, Ad hvør Mann giører sier utbriota vid oss, þvingar oss, og vill uppæsa Elld a medal vor.

8. Gud Zebaoth! hugga oss, Laat þitt Andlit lysa, þa hiaalpunst vier.

9. Vijnvid hefur þu af Egyptalande j burt flutt, og þa Heidnu utreked, og jnnplantad þann hinn sama.

10. Fyrer honum hefur þu Veigenn giort, Og laated hann grooдursetiast, so hann hefur Landed uppfyllt.

11. Fiollenn eru hulenn med hans Skugga, og med hans Kvistum (e) Cedrus TrienGuds.

(e) Þad er, Rijked took allt til Libanon.

12. Hans Kvistu hefur þu utþaned allt til Siaafarins, og hans Greiner allt til (f) Vatn-fallsins.

(f) Þad er Phrath.

13. Hvar fyrer hefur þu þa hans Gyrdingar nidurbroted, So ad allt þad sem þar framm hiaa geingur upprijfur hann?

14. Villugellter hafa umvellt honum, Og þau Villu Dyrenn hafa hann fordiarfad.

15. GUD Zebaoth! snu þu þier þo vid, Lijttu af Himnum, og siaa þu þar til, og vitia þessa Vijnvidar,

16. Og hallt honum vid Magt, hvorn ed þijn Hægre Hond hefur groodursett, Og þann Son ed þu hefur þier stadfastlega utvaled.

17. Hygg þar ad og straffa þad, so ad su Ellds-Brennan og Nidur-Broted faae eirn Enda.

18. Þijn Hond hun vernde þad Folk þinnar Hægre Handar, Og þann Mannsins Son sem þu stadfester þier.

19. So vilium vier þa ecke burt vijkia fra þier, Laat þu oss Lijfe hallda, so vilium vier þitt Nafn aakalla.

20. DROTTinn GUD Zebaoth! hugga oss, Laat þitt Andlit lysa, þa hiaalpunst vier.

## LXXXI. Psalmur.

Asaph rædur (I) ad Menn seu þacklaater vid GUD; (II) Talar um Velgiørninga Guds vid Mennena; og (III) Klagar yfer Vanþacklæte Mannanna vid GUD.

Psalmur Asaphs, uppa Githith fyrer ad syngia.

I. 2. Synged gladlega GUde, sem er vor Stirkur, Synged haatt Lof GUde Jacobs.

3 Taked Psalmana, og faaed hingad Bumburnar, Lystelega Hørpu med Psølltoronum.

4. Blaased j Basununa a Nyiraanudenum (a) a vorre Lauffskaala Haatijd.

(a) (Afettum Tijma.)

5. Þviad soddan er Sidvenia j Israel, Og eirn Riettur Guds Jacobs.

6. Soddan hefur hann til Vitnisburdar sett medal Josephs, Þa þeir utforu af Egyptalande, (b) Og heyrt hofdu annarlegt Tungumaal.

(b) Eg Hlaut ad heyra eitt Tungumaal sem eg skilde ecke.

II. 7. Þa eg hafde Þunga burt svipt af þeirra Herdum, og þeirra Hendur urdu leystar af Leirpottunum.

8. Þa ed þu aakallader mig j Neydenne, hiaalpade eg þier ut þadan, og bænheyrde þig, þa ed Storm-Vedred yferfiell þig, og eg reynde þig vid Motmælis-Vatned, Sela.

9. Heyr þu mitt Folk, Eg vil vitna a medal þijn, Israel! þu skallt Mier hlyda.
10. Ad a medal þijn sie Eingenn annar Gud, og þu tilbidier ongvann annarlegann GUD.
11. Eg em DROTTinn GUD þinn, sa ed þig hefur utleidt af Egyptalande, Luk þijnum Munne vijdt jsundur, og laat mig hann fylla.
III. 12. Enn mitt Folk hlyder ei minne Raustu, Og Israel skeiter mier ecke.
13. So hef eg þa * yfergiefed j siins Hiartans (c) Mirkre, ad þeir gange epter siinu Raade. *Gb. Post. 14, 16.
(c) Fraaleitu Aforme.
14. Ef ad mitt Folk villde mier hlyded vera, og Israel ganga a mijnum Veige,
15. Þa villda eg snarlega nidurkefia þeirra Ovine, Og snua minne Hende yfer þeirra Motstodumenn.
16. Þeir ed DROttinn hata þeim skyllde þad bregdast a honum, Enn þeirra Tijme munde vara æfenlega.
17. Og med þvi hinu besta Hveite munde eg þa metta, Og þa med þvi Hunangenu ut af Hellunne sedia.

# LXXXII. Psalmur.

Asaph talar um Embætte þess Veralldlega Yfervallds.

Psalmur Asaphs.

GUD hann stendur j Samkundu Guds, Og er Domare a medal Gudanna.
2. Hvorsu leinge vilied þier ranglega dæma, Og framar meta Persónu hins Ogudhrædda? Sela.
3. Laated hinn Faatæka og Fodurlausa riett skie, Og hiaalped hinum Faatæka og Naudþurftuga til Riettarins.
4. Hiaalped þeim hinum Lijtelmagna, og Faatæka, Og freised hann ut af Vallde hins Ogudlega.
5. Enn þeir laata sier ei segast, og skeita þvi ecke, J Mirkrunum ganga þeir ætijd, þar fyrer munu aller Grundveller Landsins niðurhrynia.
6. * Eg sagde ad vijsu, Þier erud Guder, Og aller saman Born hins Hæsta.
* Joh. 10, 34.
7. Enn þier munud þo deya sem Menn, og lijka sem eirn Tyranne nidurfalla.
8. GUD! tak þig upp, og dæm Landed, þviad þu ert Arf-Herra yfer ollum Heidingium.

# LXXXIII. Psalmur.

Asaph (I) Klagar fyrer GUde yfer Ovinum Guds Kyrkiu. Og (II) Bidur ad GUD vilie straffa þaa.

Loffsaungs-Psalmur Asaphs.

I. 2. GUD! þeig ei þannenn, Og vert ecke so þagmælskur, GUD, bindst þu þess ei so!
3. Þvi siaa þu! ad þijner Oviner æda framm, Og þeir ed þig hata hefia upp Hofuded.
4. Þeir giora klooklegar Raadagiorder j moote þijnu Folke, Og raadslaga moote þijnum enu (a) huldu.
(a) (Huldu) Þad eru þeir sem lifa j Trunni, hulder i Verolldenne, so menn hallda þa fyrir Villumenn.
5. Nu vel, seigia þeir, laatum oss upprætta þa, so ad þeir sieu eckert Foolk, So ad Nafnsins Israel verde ei leingur gieted.
6. Þviad þeir hafa sambunded Raad innbyrdis, Og Saattmaal giort a mote þier.
7. Tialldbuder þeirra Edomita og Ismaelita, þeirra Moabita, og Hagarita.
8. Þeirra Gebalita, Ammonita, Amalekita, þeirra Philistea med þeim af Tyro.
9. Assur hefur og sleiged sier til þeirra, Og hiaastod veitt Bornum Loths, Sela.
II. 10. Gior vid þa so sem vid þa Midianita, so sem Sissera, so sem Jabin hiaa Læknum Kison.
11. Þeir ed afmaadust hiaa Endor, Og urdu ad Saurindum a Jordunne.
12. Gior þu þeirra Hofdingia so sem Oreb og Seb, Alla þeirra Yfermenn so sem Seba og Zalmuna.

13. Þeir

13. Þeir ed þar segia, Vier vilium Husenn Guds eignast.

14. GUD! gior þa so sem eirn Hvirfil-Vind, og lijka sem Hoalm-Stroa fyrer Vinde.

15. So sem Elldur, hvor ad Skoogana uppbrenner, Og so sem þad Boal, hvort Fiollenn upptendrar.

16. Lijka so offsæk þu þa med þijnu Storm-Vidre, Og skielf þa med þinne O-Vedroattu.

17. Uppfyll þeirra Auglit med Forsmoan, So ad þeir verde epter þijnu Nafne ad spyria.

18. Skammast hlioote þeir sijn, og skielfast æ meir og meir, Og til Skammar verde þeir, og fyrerfarest.

19. So munu þeir þeckia, þad Þu med þijnu Nafne heiter DROTTINN Alleinasta, Og Sa hinn Hærste j allre Verolldinne.

# LXXXIV. Psalmur.

Psalmur Chore Barna, (I) um Vegsemd Guds Kyrkiu; og (II) Um Vegsemd þess Heilaga Predikunar Embættes.

Psalmur Barna Chore, uppa Githith fyrer ad syngia.

I. 2. Hvorsu Elskulegar eru þijnar Tiallbuder, DROTTinn Zebaoth!

3. Soalu mijna forleinger og tregar epter Forgarde DROTTins, mitt Lijf og Soala gledur sig j þeim Lifanda GUDe.

4. Þviad Fuglenn hefur eitt Hus funded, og Svalann sitt Hreidur, til ad utklekia j Ungum sijnum, sem er þitt Alltare, DROttinn Zebaoth, Minn Kongur og Minn GUD!

II. 5. Sæler eru þeir sem j þijnu Huse byggia, þeir lofa þig þar æfenlega, Sela.

6. Sæler eru þeir Menn sem þig hallda fyrer sinn Stirkleika, og af Hiarta (a) epter þier ganga.

(a) æ Ebreskn, J hvors Hiarta þad eru slegner Veiger.

7. Þeir ed j giegnum þann (b) Eymdardalenn ganga, og giora þar Brunna, og þeir Læresedurner verda med margfalldre Blessan prydder.

(b) (Eymdar-Dalenn) Þad er, Þeir ed fara umkring apfur og framm, og kienna Folkinu.

8. Þeir odlast hvoria Sigurvinning epter adra, So ad sioast hlytur þad hinn Riettelege GUD sie til Zion.

9. DROttinn GUD Zebaoth! heyr þu mijna Bæn, Og lꝍat þier hana skiliast, GUD Jacobs! Sela.

10. GUD vor Skiolldur! giæt ad, Alijttu Rijked þijns hins Smurda.

11. Þviad eirn Dagur j þijnum Forgarde er betre enn annars Þusund, Eg vil helldur vardveita Dyr j Guds mijns Huse enn leinge ad bua j Tialldbudum Ogudlegra.

12. Þvi GUD DROTTinn er (c) Sool og Skiolldur, DROttinn giefur (d) Naad og Heidur, Hann mun ecke lꝍata þa Froomu hafa Skort a nockru Goodu.

(c) Hann Lærer, Verndar, Huggar, og Hialpar?

(d) (Naad og Heidur) J Stadinn Haturs og Forsmoanar Heimsins.

13. DROTTINN Zebaoth! Sæll er sa Madur sem treyster uppa þig.

# LXXXV. Psalmur.

Chore Born bidia um Guds Fulltijnge og Blessan i ollum Stettum.

Psalmur Barna Chore fyrer ad syngia.

2. DROTTinn! Þu sem oadur varst Miskunsamur þijnu Lande, og frelsader þa hina Fongudu Jacobs.

3. Þu sem oadur fyrergafst Misgiordernar þijnu Foolke, og nidre byrger allar þeirra Synder, Sela.

4. Þu sem oadur aftokst alla þijna Reide, Og burt snerer þier fra Grimmd þinnar Bræde.

5. Hugga oss, Gud! Vort Hioalpræde, og lꝍat af þinne Ovinoattu yfer oss.

6. Villtu þa æfinlega vera reidur uppa oss, og lꝍata þijna Reide frammganga ætijd og alla Tijma?

7. Villtu

7. Villtu þa ecke endurnæra oss aptur? so ad þitt Folk meige gledia sig yfer þier.
8. Audsyn þu oss, DROTTinn! þijna Miskunseme, og hiaalpa oss.
9. Mætte eg sca ad heyra, þad Gud DROTTinn hann talade, Ad hann Fridenn tilsegde sijnu Folke, og sijnum Heilogum, So ad þeir rotudu ecke j neina (a) Foavitsku.
(a) (Foavitsku) Þad er, Ad þeir ecke umsijder orvilnest, edur Oholuger verde, og laste Gud.
10. Po er hans Hiaalp þeim naalæg sem hann ottast, So þad (b) Dijrdenn bwe j voru Lande.
(b) (Dijrdenn) Þad er, Ad þad gange ærliga til, Menn sien fromer og godviliader hvor vid annan.
11. Ad Miskunenn og Sannleikurenn mætest sijn a mille, ad Riettvijsenn og Fridurenn kysse hvort annad.
12. So ad Tryggdenn yxe a Jordu, Og Riettvijsenn af Himne ofan sæe.
13. Ad DROTTinn villde giora oss til gooda, so ad vort Land bere sinn Avoxt.
14. So þad Riettvijsenn blijfe þo samt fyrer honum, og foae fullann Frammgang.

# LXXXVI. Psalmur.

David bidur Gud (I) ad Leida sig og vijsa sier Veg i Guds Otta fyrer Heil: Anda; og (II) Vardveita sig fyrer ollum sijnum Ovinum.

1. DROTTenn! hneig þijn Eyru og Bænheyr mig, þviad eg em Vesæll og Foatækur.
2. Vardveit þu Soal mijna, þviad eg em (a) Heilagur, Hiaalpa þu, Minn Gud! Þræle þijnum, sem treyster a þig.
(a) (Heilagur) Maa hier og merkia Fordæmdur, Fyrerlitenn, per Antiphrasin, so sem einn Villumadur.
3. Vertu mier Naadugur, DROTTinn! þviad daglegana kalla eg til þijn.
4. Gled þu Soalena Þræls þijns, þviad epter þier, DROTTinn! forleinger mig.
5. Þviad þu, DROTTinn! ert Goodur og Lijknsamur, og nærsta Miskunsamur, vid alla þa ed þig aakalla.
6. Gief Gaum, DROTTinn! ad minne Bæn, og hygg ad Raustu minnar Graatbeidne.
7. J Neydenne kalla eg til þijn, Ad þu villder heyra mig.
8. DROTTinn! Eingenn er þier lijkur medal Gudanna, og þar er ei sa neirn sem so kann ad giora sem þu.
9. Aller Heidingiar, sem þu hefur skapad, munu koma og tilbidia fyrer þier, Drottinn! og þitt Nafn dijrdka.
10. Þad þu ert so Mikell, og giører Daadsemdarverkenn, og ert alleina Gud.
11. Vijsa þu mier, DROTTinn! þijna Vegu, so ad eg gange j þijnum Sannleika, vidhalltu mijnu Hiarta vid þad (b) Eina ad eg oottest þitt Nafn.
(b) (Eina) Þad er, Guds Ord er Eitt, og giører Eining, Adrer Lærdomar sundurskilia Folked, og giøra ecke utan Tvist og Hoopadraatt.
12. Eg þacka þier, DROTTinn! Gud Minn, ut af ollu Hiarta, Og heidra þitt Nafn eylijflega.
13. Þviad þijn Miskunseme er Mikel yfer mier, og mijna Saalu hefur þu frelsad ut af þvi Diwpa Helvijte.
II. 14. Gud! hiner Drambloatu setia sig upp a moote mier, og sa Flockur Tyrannanna stendur epter minne Soal, og hefur þig ecke sier fyrer Augum.
15. Enn þu, DROTTinn Gud! ert Miskunsamur og Naadugur, Þolennmoodur, og Mikellrar Miskunsemdar og Sannleika.
16. Snu þier til mijn og miskuna mier, stirk Þræl þinn med þinne Magt, og hiaalpa þu Syne þinnar Ambaattar.
17. Gior þu eitt Teikn vid mig, ad mier vel gange, so þad sioae þeir ed mig hata, og skammest sijn, þad þu, DROTTinn! hiaalpar mier, og huggar mig.

# LXXXVII. Psalmur.

Su Jardneska Jerusalem var Ein Fyrermindun Guds Kyrkiu J Nya Testamentenu, Psal. 48.

Lof-

Lofsaungur Barna Chore.

Sterklega er Hun Grundvollud uppa þvi Heilaga Fialle.

2. DROTTinn hann elskar Portenn Zion, framm yfer allar Tialldbvder Jacob.

3. Dijrdarleger Hluter verda j þier predikader, þu Borgenn Guds, Sela.

4. Eg mun (a) Rahab og Babel predika lꜳta, ad þær skulu kienna mig, Sioa þu, Philistei og Tyri med þeim Morlendsku skulu þar fædder verda.

(a) Rahab merker Egyptaland.

5. Til Zion mun sagt verda, þad allshꜳttader Menn skule þar fædder verda, og þad hann Sa Hæste uppbigge hana.

6. DROTTinn hann mun (b) predika lꜳta j allshꜳttudu Tungumꜳle, so þad nockrer skulu (c) þar eirnenn fædder verda, Sela.

(b) (Predika) Þad er, Skal lꜳta telia, þa hann uppskrifar Folked.

(c) (Þar) J Zion.

7. Og þeir Saungvararner, so sem j Danse munu aller syngia j þier, eirn sem annar.

# LXXXVIII. Psalmur.

Gudrækeleg Bænar Ord til DRottens J Freistingum og Hugar-Vijle Sꜳlarennar.

Psalm-Saungur Barna Chore, fyrer ad syngia, Af (a) Veikleik þeirra Aumu.

(a) Uppa Mahalath ad leika ꜳ mots vid annann.

Undervijsun Hemans Esrahiters.

I. 2. DROTTinn! Gud minn Hiꜳlpare, A Noott og Deige kalla eg fyrer þier.

3. Mijna Bæn lꜳt þu koma fyrer þig, hneig þijn Eyru til mijns ꜳkalls!

4. Þviad Sꜳla mijn er full af Eymd, og mitt Lijf þad tekur Helvijte ad nꜳlægiast.

5. Eg reiknast eins og þeir sem fara til Helvijtis, Eg em lijka sem sa Madur hvor ed øngva Hiꜳlp hefur.

6. Eg ligg medal þeirra Frammlidnu yfergiefenn, lijka sem hiner j hel slegnu, þeir ed j Grofum liggia; Hvorra þu minnest eige leingur, og þeir frafskilder eru fra þinne Hende.

7. Þu hefur mig j Grofena nidurlagt, J Mirkred og Diwped.

8. Þijn (b) Grimmd þricker mier, og þu med øllum þijnum Vatnsfloodum þreynger ad mier, Sela.

(b) Brennande Reide.

9. Mijna Vine hefur þu skiled langt fra mier, þu hefur lꜳted mig þeim ad Vidbiod verda, eg ligg herteken og kann ecke j burt ad komast.

10. Mitt yferbragd er herfelegt af Eymdar Vesølld, DROTTinn! eg kalla til þijn daglega, til þijn utbreide eg mijnar Hendur.

11. Muntu nockud medal Daudra Dꜳsemdarverkenn giora? Eda munu hiner Frammlidnu upprijsa og þacka þier? Sela.

12. Hvort munu Menn j Grofunum frammtelia þijna Miskunsemd? Og þinn Sannleik j Fordiorfunenne?

13. Meiga nockud þijnar Dꜳdsemder j Mirkrunum medkiendar verda? Edur þitt Riettlæte j Landenu, þar sem Madur þeinker eckert?

II. 14. Enn eg kalla til þijn, DROTTinn! Og mijn Bæn kiemur ꜳrla fyrer þig.

15. Hvar fyrer utskufar þu, DROttinn! Sꜳlu minne, og byrger þitt Andlit fyrer mier.

16. Eg em aumur og vanmegna, af þvi, ad eg em so (c) burtrekenn, Eg lijd þijna Skielfing, so ad eg ørvilnunst ad mestu.

(c) Fra Ungdøme.

17. Þijn (d) Heiptar-Bræde geingur yfer mig, Þijn Skielfing hun þvingar mig.

(d) Brennande Reide.

18. Daglegana umkringia þeir mig lijka sem Vatn, og slꜳ Hring j kringum mig til samans.

19. Pu velldur þvi, ad mijner Viner og Náungar, og mijner Kunningiar, taka sig langt j burt fra mier, fyrer þvilijkrar Eymdar saker.

## LXXXIX. Psalmur.

Spaadomur um Messias og hans Rijke.

Undervijsun Ethans Esrahiters.

2. Eg vil syngia af Miskun DROTTins Eylijflegana, og þinn Sannleik kunngiora med mijnum Munne, um Alldur og Æfe.

3. Og segia so, Ad ein Eylijfleg (a) Naad mun upp koma, og ad þu muner þinn Sannleik tryggelega hallda a (b) Himnum.

(a) (Naad) Joh. 1, 17. Naad og Sannleikur er fyrer JEsum Christum ordenn.

(b) (Himnum) Þviad Rijked Christi er ecke eitt Jardneskt Rijke, helldur Himneskt og j Skijunum, ecke a Jørdunne.

4. Eirn Saattmaala hefe eg giort vid mijna Utvalda, Eg hefe svared mijnum Þion David.

5. Eg vil tilskicka hier Sæde Eylijflegana, og þitt Tignar-Sæte uppbyggia um Alldur og Æfe, Sela.

6. Og Himnarner munu, DROTTinn! þijnar Daadsemder prijsa, og þinn Sannleik j Samkundu Heilagra.

7. Þviad hvør maa j Skijunum DRottne Samgillda? Og a medal Gudanna Barna DRottne Samlijkur verda?

8. Gud hann er miøg Maattugur j Samkundu Heilagra, og Furdanlegur yfer øllum þeim sem j kringum hann eru.

9. DROTTinn Gud Zebaoth! hvør er eirn Megtugur Gud so sem þu? Og þinn Sannleikur er j kringum þig.

10. Þu Drottnar yfer þeim ølgusama Sioo, þu stiller hans Bylgiur nær ed þær upphefia sig.

11. Þu nidur slær (c) Rahab til Dauds, Þu j sundurdreifer þijnum Ovinum med þijnum Stirktar Armlegg.

(c) (Rahab) er Ægyptus, ut supra, 87, og merker Drambsama.

12. Himenenn og Jordenn eru þijn, Jardarkringluna hefur þu grundvallad, og hvad þar er jnne.

13. Nordred og Sudred þa hefur þu skapad, Thabor og Hermon (d) glediast j þijnu Nafne.

(d) (Glediast) Pad er, Allt Landed bloomgast og stendur lystugt.

14. Þu hefur eirn volldugleganu Armlegg, Oflug er þijn Hond, og Haa er þijn Hægre Hond.

15. Riettvijse og Domur eru þijns Sætis Stadfesting, Miskun og Sannleikur eru fyrer þijnu Auglite.

16. Sæll er sa Lydur sem þa (e) Gledennar Skemtun kann, DROTTinn! j Lioose þijns Andlitis munu þeir ganga.

(e) (Gledennar) Pad er, Hvøred hefur þad Fagnadar fulla Guds Ord.

17. Yfer þijnu Nafne munu þeir gledia sig daglegana, Og j þinne Riettvijse Dijrdleger vera.

18. Þviad Hroosan þeirra Stirkleiks ert þu, og fyrer þijna Millde munt þu vort Horn upphefia.

19. Þviad DROTTenn er vor Skiølldur, Og Sa hinn Heilage j Jsrael er vor Kongur.

20. J þann Tijma talader þu fyrer Sioner til þinna Heilagra, og sagder, Eg hefe eirn Kappa uppvaked Sa ed hiaalpa skal, eirn Utvaldann af Folkenu hefe eg upphafed.

21. * Eg hefe funded minn Þion David, Hann smurda eg med mijnu Heiløgu Vidsmiøre. * Giornb: Post: 13, 22.

22. Mijn Hond skal vid Magt hallda hønum, Og minn Armleggur skal stirkia hann.

23. Ovinerner skulu ei fa Yferhond yfer hønum, Og hiner Ranglaatu skulu ecke nidurbefia hann.

24. Helldur skal eg hans Motstodumenn nidur

nidur fyrer honum slaa, Og þa ed hann hata vil eg ploaga.

25. Enn minn Sannleikur og Miskunseme skal j hiaa Honum vera, Og hans Horn skal j mijnu Nafne upphafed verda.

26. Hans Hond vil eg j Sioenn setia, Og hans Hægre Hond j Votnenn.

27. Hann mun nefna mig so, Pu ert Minn Fader, Minn Gud og Stirkur, sa ed mier hiaalpar.

28. Og eg vil giöra hann Frumgietenn Son, Allra Hærstann medal Konunganna a Jordu.

29. Mijna Miskunseme vil eg eylijflega hallda vid hann, Og Minn Saattmaale skal honum stadfastur vera.

30. Eylijflega vil eg honum Sæde giefa, Og hans Stool stirkia æ medan Himenenn varer.

31. Enn ef hans Born yfergiefa mitt Log-maal, Og ganga ecke j mijnum Riettindum,

32. Ef ad þau vanhelga mijnar Skickaner, Og hallda ecke mijn Bodord,

33. Pa vil eg þeirra Synda vitia med Hyr-tingar-Vende, Og þeirra Misgiorda med Ploagum.

34. Enn minne Miskun vil eg ecke fra ho-num snua, og a mijnum Sannleika ongvann Brest vera loata.

35. Minn Saattmaala vil eg ecke vanhelga, Og ecke umbreita þvi sem framm geinged er af mijnum Munne.

36. Eitt Sinn hef Eg svared vid minn Hei-lagleik, Eg vil ey liuga ad David.

37. Hans Sæde skal Eylijft vera, Og hans Stoll lijka sem Solenn fyrer Mier.

38. So sem Tungled þa skal hann bijvarast eylijflegana, Og lijka so sem (f) Vottarner j Skijonum eru Obrigdanleger, Sela.

(f) (Vottarner) Pad er Regnbogenn, hvorn Gud sette Vott þess Eylijfa Saattmaals vid Noa.

39. Enn nu uthrinder þu, og burtkastar, og ert Reidur vid þinn hinn Smurda.

40. Pu nidurbrytur Saattmaala þijns Pions, Og Foottredur hans Koronu nidur til Jardar.

41. Pu nidurbrytur alla hans Murvegge, Og lætur hans Fasta Stade nidurbriotast.

42. Hann ræna aller þeir sem framm hiaa ganga, sijnum Naagronum er hann ad Hoade ordenn.

43. Hægre Hond hans Motstodu-Manna upphefur þu, Og gledur alla hans Ovine.

44. Svo hefur þu eirnenn hans Sverdsins Krapt j burt teked, Og lætur hann ecke vinna Sigur j Strijdenn.

45. Pu nidurbrytur hans (g) Hreinlæte, Og fleyger hans Stool til Jardar.

(g) (Hreinlæte) Pad er Allrar Guds Pionustugiordar Skart og Pryde.

46. Pu styttir Tijmann hans Ungdoms Alldurs, og hyrger hann med Forsmaan, Sela.

47. DROTTinn! Hvorsu leinge villt þu þannenn med ollu hylia þig, og þijna Heiptar Reide sem Elld brenna loata?

48. Hugleid þu hvorsu Skammvinnt mitt Lijf er, Hvar fyrer villtu alla Menn til einskis skapad hafa?

49. Hvor er sa nockur sem lifer og ecke sier Daudann, Sem sijna Saalu frelse ut af Helvijtis Hende? Sela.

50. DROTTinn! Hvar er nu þijn fyrre Miskun, sem þu hefur svared David j þijnum Sannleik?

51. Minnstu DROTTinn a Nidran þin-na Pionustumanna, hvoria ed eg ber j mijnum Barme, af ollu so morgu Folke.

52. Hvar med þijner Oviner nidra þier DROTTinn, þar med þeir nidra Footspo-rum þijns hins Smurda.

53. Lofadur sie DROTTinn eylijflega-na, Amen, Amen!

## XC. Psalmur.

Moses talar (I) um, Hversu ad Mannsins Lijf sie Fallvallt; og (II) Hegomlegt.

Bæn Mose Guds Manns.

I. DROTTinn GUD! Þu ert vort Athvarf, æ og alltijd.

2. Fyrr enn þad Fiollenn urdu og Jordenn, og þad Verolldenn var skopud, ertu GUD fra Eylijfd til Eylijfdar.

3. Þu sem Mannenn lætur j burt (a) deya, og seger, Komed aptur þier Mannanna Born!

(a) (Deyá) Þad er, Jafnann deya Menn, og adrir koma upp j þeirra Stad, fyrer Krapt Guds Ords, þar fyrer er vort Lijf fyrer Hønum so sem Eckert.

4. Þviad *Þusund Aar eru fyrer þier sem sa Dagurenn ed j giær um leid, og so sem ein Nætur vaka. *2 Pet. 3, 8.

5. Þu lætur þa burt lijda sem annad rennande Vatn, Og þeir eru so sem Svefn, lijka sem Gras þad ed þo snarlega visnar.

6. Hvort ed snemma blomgast, og Skiotlega visnar, Og ad Kvollde Dags verdur upphoggved og uppþornar.

7. Þad sama giorer þijn Reide ad vier so forgongum, Og þijn Grimmd þad vier hliotum so skyndelega j burt.

8. Þviad vorar Misgiorder setur þu framm fyrer þig, Vorar (b) ovitanlegar Synder j Lioos fyrer þijnu Auglite.

(b) (Ovitanlegar) Þad er Synd Adams, Rom. 5, 12. hvor ed Daudann forskulldar, þo veit Heimurenn eckert af slijku.

II. 9. Þar fyrer j burt lijda aller vorer Dagar fyrer þinne Reide, Vier frammleidum vora aratolu so sem eitt Æfentijr.

10. Vort Lijf varer um Siotijger aar, enn nær þad kiemur hæst, þa er þad aattatijge Aar, Og þa þad hefur vered kostulegt, þa hefur þad Mæda og Erfide vered, Þvi þad lijdur snart burt, so sem flygium vier þadan j fra.

11. Enn Hvor truer þvi, þad þu so aakaflega (c) reidest? Og hvor uggar um sig fyrer þvilijkre þinne Grimmdar Reide.

(c) (Reidest) Ad slijk sie þijn Reide, og vorar Synder sieu so stoorar sem slijka Reide forþienad hafa.

12. Kienn þu oss ad hugsa, þad vier hliotum ad deya, So ad vier Forsiaaler verdum

13. Snu þu þier þo DROTTinn! til vor aptur, Og vert þijnum Þionum miskunsamur!

14. Aarla uppfyll þu oss med Miskun þinne, Þa vilium vier prijsa og glader vera um alla vora Lijfdaga.

15. Gled oss nu aptur, epter þad þu hefur ploagad oss so leinge, Epter þa langa Olucku sem vier hofum þolad.

16. Audsyn þijnum Þionum (d) þijn Verk, Og þijna Vegsemd Bornum þeirra.

(d) (Þijn Verk) Þad er, Lijfed og Hialpina og allt Gott.

17. Og DROTTinn GUD vor sie oss vingiarnlegur, Og frammkvæme j hia oss (e) Verked vorra Handa, ja, þad Verked vorra Handa þa vilie hann frammkvæma.

(e) (Verked) Þad er, Andlega, og Veralldlega Stiorn.

## XCI. Psalmur.

Huggun i Storre Neyd og Hættu.

Hvor hann situr under Skiole hins Hæsta, og er under Skugga hins Allmaattuga,

2. Sa seger til DROTTins, Mitt Traust og mitt Slot, Minn GUD a hvorn eg vona!

3. Þviad hann frelsar (a) mig ut af Snoru Veide-Mannsins, Og ut af þeirre skadsamlegre Drepsoott.

(a) Ebraice (Þig.)

4. Hann mun skyla þier med sijnum Fiodrum, Og þitt Trunadar-Traust mun vera under hans Vængium, Hans (b) Sannleikur er bæde Skiolldur og Veria.

(b) (Sannleikur) Þad er, Orded og Fyrerheit Naadarennar.

5. So ad þu þurfer ei ad skielfast fyrer * Ognan Næturennar, Fyrir þeim Skeytum sem a Dagenn fliuga.

* Hann meinar hier allshattada Ogiæfu, Ofrijke, Ranginde, Svik, Prette, Hugmood.

6. Fyrer þeirre Drepsoottenne sem j Myrkrunum lædest, Fyrer þeirre Sykenne sem um Middeiged fordiarfar.

7. Þott ad Þusund falle hia þinne Sijdu,

du, og Tiju Þusund til þinnar hægre Hlidar, Þa mun hun ecke hæfa þig.

8. Jaa, þu munt þijna Lyst sioa med þijnum Augum, Og lijta a þad, hvornenn ed þeim Ogudlegu mun endurgolldid verda.

9. Þviad DROttinn er (c) þitt Trunadar-Traust, Sa hinn Hærste er þitt Athvarf.

(c) Ebraice, Mitt.

10. Þig mun eckert vondslegt henda, Og eingenn Plaaga mun nalægia sig til þijns Heimkynnis.

11. Þviad * Hann hefur boded sijnum Einglum um þig, Ad þeir skulu vardveita þig a ollum þijnum Vegum.

* Math. 4, 6. Luc. 4, 10.

12. Ad þeir a Hondum bere þig, og þu skallt ei steyta Foot þinn vid Steine.

13. Yfer Leon og Eiturorma muntu ganga, og med Fotum troda þau ungu Leonenn og Drekana.

14. Hann gyrnest mig, þvi vil eg frelsa hann, Hann þecker mitt Nafn, þar fyrer vil eg vernda hann.

15. Hann kallar til mijn, so vil eg bænheyra hann, Eg em hiaa honum j Neydenne, eg vil honum þadan utrycka, og hann vegsamlegann giora.

16. Eg vil sedia hann med langgiædum Lijfdogum, og eg vil audsyna honum mitt Hiaalpræde.

## XCII. Psalmur.

Þackargiord til Guds fyrer þad, ad hann (I) Lætur þa Hreckvijsu ei blessast; (II) En gefur hinum Godu allt Gott.

Psalma-Saungur a Sabbaths Deigenum.

I. 2. Þad er Agiætur Hlutur DROttne Þacker ad giora, og Lof syngia þijnu Nafne Þu Hinn Hæsrte!

3. Ad Morgne þijna Miskun, og ad Kvollde þinn Sannleik ad kunngiora.

4. Uppa Tiju Streinge og Psalltara, Med (a) Horpu-slætte.

(a) Uppa Higgaion med Horpu.

5. Þviad þu, DROTTinn! lætur mig gladværann syngia ut af þijnum Verkum, og eg hroosa Verkum þinna Handa.

6. DROTTenn! Hvornenn eru þijn Verk so stoor? Þijner Þanckar eru so miog (b) Diuper.

(b) (Diuper) Þad er, So Dasamleger, med hvorium hann hiaalpar oss, So ad Eingenn Madur kann þad ad grunda nie hugsa.

7. Eirn Doarlegur Madur trwer þvi ecke, og sa Heimske aktar þad ecke.

8. Hiner Ogudhræddu grænka sem Gras, og þeir Illgiordamenn blomgast aller, Þangad til þeir afmaader verda um Alldur og Æfe.

II. 9. Enn þu, DROTTinn! ert Sa hinn Hæsrte, og blijfur eylijflegana.

10. Þviad sioa þu, þijner Oviner, DROttinn! Sioa þu, þijner Oviner munu fyrerfarast, og aller Illvirkiar munu j sundur dreifder verda.

11. Enn mitt Horn mun upphafed verda, so sem annars Einhyrnings, og eg mun verda (c) Smurdur med Fersku Vidsmiore.

(c) (Smurdur) Þad er, Eg mun endurlijfgast.

12. Og mijn Augu munu sioa sijna Lyst a Ovinum mijnum, og mitt Eyra mun heyra sijna Lysting a þeim Illskufullu, sem setia sig upp a moote mier.

13. Hinn Riettlaate mun blomgast so sem Palmavidur, Hann mun vaxa so sem annad Cedrus-Trie j Libanon.

14. Þeir sem jnnplantader eru j Hwse DROTTins munu j Forgarde Guds vors blomgast.

15. Og nær ed þeir taka eirnenn alldrader ad verda, þa munu þeir þo samt sem aadur blomgast, og aavaxtarsamer og fersker verda.

16. So ad þeir kunngiore ad DROttinn er so Goodur, Minn Stirkur, og eingenn (d) Ranginde eru med honum.

(d) Hann aalijtur ecke Personu nie Maalefne hins Ogudhrædda, so sem hann hyggur og ætlar.

 XCIII. Psal-

# XCIII. Psalmur.

Spaadomur um Mesſias og hans Rijke.

DROTTinn er Kongur, og dijrdlega Pryddur, DROTTinn er pryddur, og hefur eitt Rijke uppbiriad, ſo vijdt ſem þad Verolldenn er, og tilbued ad þad ſkule blijfa.

2. Sijdan ſtendur þinn Stooll ſtodugur, Þu ert Eylijflegur.

3. DROTTinn, þeir Vatnsſtraumarner forhefia ſig, þeir Vatnsſtraumarner forhefia ſinn Nid, Vatnſtraumarner forhefia Bylgiurnar.

4. Bylgiurnar j Hafenu eru miklar, og þioota upp ofurlega, Enn DROTTinn j Upphædunum er þo enn meire.

5. Þijn Ord eru eirn (a) Riettferdugur Lærdomur, Heilagleikenn er Prydenn þijns Hwſs, O DROTTinn! eylijflegana.

(a) (Riettferdugur) Þad er, Þijner Vitnisburder eru Trufaſter, Stødnger, og Miøg Oſkeikanleger.

# XCIV. Psalmur.

Bæn a mote Ovinum Guds Kyrkiu.

DROTTinn Gud! hvørs ad Hefndenn er, Gud, hvørs ad Hefndenn er (a) audſyn þig!

(a) Briotſt fram, laat þig ſiaa.

2. Upphef þig Þu Domare Verolldarennar! Endurgialld þeim Dramblaatu hvad þeir verdſkullda.

3. DROTTinn! hvørſu leinge ſkulu hiner Ogudhræddu, Hvørſu leinge ſkulu hiner Ogudhræddu (b) ſtæra ſig?

(b) (Stæra ſig) Þad er, Þeir tala ſtoor Ord ſo ſem adrer Herrar og Vikingar, fyrer hvørium Menn meiga kvijda hvad þeir tala edur vilia.

4. Og ſo troaſſuglega tala, og aller Illgiordamenn hrooſa ſier ſo?

5. DROTtinn! þeir nidurſlaa þitt Folk, og plaaga þijna Arfleifd.

6. Eckiurnar og Utlendingana i Hel ſlaa þeir, og lijflaata hina Fodurlauſu.

7. Og ſegia, DROTTinn ſier þad ecke, og Gud Jacobs ſkeyter þar ecke um.

8. Hygged ad þier Gicker medal Folkſins, og þier Daarar! Hvonær vilied þier Skinſamer verda?

9. Sa ſem Eyrad hefur plantad ſkyllde hann ecke heyra? Hann ſem Augad hefur ſkapad, ſkyllde ſa ecke ſiaa?

10. Hann ſem agar hina Heidnu, ſkyllde hann ecke reſſa? Sa ed Monnunum kienner þad hvad þeir vita.

11. *Enn DROttinn veit Hugſaner Mannanna, Ad þær eru hiegomlegar.

*1 Cor. 3, 20.

12. Sæll er ſa Madur ſem þu agar DROTTinn, og mentar hann fyrer þitt Logmaal.

13. So ad hann hafe Þolenmæde nær ed a moote geingur, Allt þar til ed þeim Ogudlega verdur Grofenn bwenn.

14. Þviad DROTTinn mun ecke utſkufa ſijnu Folke, nie helldur yfergiefa ſijna Arfleifd.

15. Þviad Riettindenn hlioota þo Riettinde ad blijfa, og þeim munu oll Froom Hiortu filgia.

16. Hvør veiter mier Hioaſtod j giegn þeim Illgiornu? Eda hvør geingur til mijn j moote Illgiorda-Monnonum.

17. Ef ad DROttinn hann hefde ecke hioalpad mier, þa læge mijn Ond nærſta (c) j Þognenne.

(c) (Þøgnenne) Þad er, J Helvijte, þar aller Hluter þeigia, og allt er olldungis ute.

18. Eg ſagde, Minn Footur hefur ſkeikad, Enn þijn Miſkun, DROTTinn! vidhiellt mier.

19. Marga Hugar-Hrelling hafde eg j mijnu Hiarta, Enn þijnar Hugganer þa gloddu mijna Saalu.

20. Alldrei þa muntu ſamþyckur verda þeim (d) ſkadſamlega Stool, Hvør ed Logmaaled illa utleggur.

(d) (Skad-

(d) (Skadsamlega Stool) Pad er, Par Menn læra skadsamlega Hlute, og Fordiörfun Saalnanna.

21. Peir brynia sig ut j mote Saalu hins Riettferduga, og fordæma Saklaust Blod.

22. Enn DROttinn er mijn Verndar-Hlijf, Minn Gud er Stirkur mijns Athvarfs.

23. Og hann mun endurgiallda þeim þeirra Ranglæte, og mun afmaa þa fyrer þeirra Illsku saker, DROttinn Gud vor hann mun afmaa þa.

## XCV. Psalmur.

Her skipar David ad giöra Messias Þacker; og tiaa hönum Hlijdne.

Komed hingad, Laatum oss Lof syngia DROttne, og heatt Lof syngia Stirkleik vors Hiaalprædis.

2. Laatum oss med Þackargiörd fyrer hans Asionu koma, og med Psalmum hönum Lof syngia.

3. Þviad DROTTinn hann er Mikell Gud, og eirn Maattugur Kongur yfer alla Gude.

4. Þviad j hans Hende er allt þad sem Iordenn færer, og Hæder Fiallanna eru hans eirnenn.

5. Þviad hans er Siöorenn, og hann hefur giört hann, og hans Hendur Hafa (a) Þurlended tilbued.

(a) (Þurlendid) Pad er, Iördena.

6. Komed, laatum oss tilbidia og nidurkriupa, og framm falla fyrer þeim DROttne sem oss hefur giört.

7. Þviad hann er vor Gud, og vier Folk hans Haglendis, og Sauder hans Handa.

8. *I Dag ef ad þier heyred hans Rodd, þa forherded ecke ydar Hiortu, So sem ad skiede til Meriba, lijka sem til Massa a Eydemorkenne. *Ebr. 3, 7. cap. 4, 7.

9. Hvar ed Fedur ydrer freistudu Mijn, freistudu a og skoudu mijn Verk.

10. So þad j fiorutijger Ar hafde Eg Mædu fyrer þessu Folke, og sagde, Peir eru þad Folk, hvörra Hiörtu vilia ætijd fara villt, og þeir ed ei vilia læra mijna Vegu.

11. So þad eg soor j minne Reide, Ad eige skyldu þeir koma til minnar Hvijldar.

## XCVI. Psalmur.

Spaadomur um Rijke Messiæ.

Synged DROttne Nyann Lof-Saung, Synged DROttne oll Verolldenn.

2. Synged DROttne, og lofed hans Nafn, Prediked Dag fra Deige hans Hiaalpræde.

3. Uppteljed a medal Heidenna Pioda hans Dijrd, Medal alls Folks hans Daadsemder.

4. Þviad DROttinn er Mikell og miøg Loflegur, Daadsamlegur framm yfer alla Gude.

5. Þviad aller Guder Piodanna eru Afguder, Enn DROttinn hann hefur Himenenn giört.

6. Agiætlega vel og prydelega þa stendur fyrer hönum, og þar geingur vollduglega og loflega til j hans Helgedome.

7. Þier Piooder færed hingad DROttne, Færed hingad DROttne Dijrd og Magt.

8. Færed hingad DROttne Dijrdena hans Nafns, Færed Giafer, og komed jnn j hans Forgard.

9. Tilbidied DROTTinn j Heilögum Skruda, Øll Verolldenn otteſt hann.

10. Seged a medal Heidenna Piooda, þad DROTTinn hann er Konungurenn, og hafe sitt Rijke tilreidt so vijdt sem Verolldenn er, ad þad skule blijfa, Og hann dæmer Folked riettvijslega.

11. Himenenn hann gledie sig, og Iordenn sie gladvær, Siaafarhafed þad þiote upp, og hvad þar er jnne.

12. Folldenn gledie sig, og allt hvad þar er uppa, Og laated oll Trien j Skogenum hroosa.

13. Fyrer DROTTne, Þviad hann kiemur, Þviad hann kiemur til ad dæma Iardrijked. Hann mun Iardarkringluna dæma med Riettvijse, og Foolked med sijnum Sannleika.

XCVII.

## XCVII. Psalmur.

Spadomur um þad Konungleza Embætte Messiæ.

DROTTinn er Konungurenn, þar af gledur sig Jardrijked, Og Eyarnar sieu gladværar, so margar sem þær eru.

2. Skijenn og Þokann eru j kringum hann, Riettvijsenn og Domurenn er Grundvallan hans Stols.

3. Eldurenn utgeingur fyrer honum, Og brenner allt umkring hans Ovine.

4. Hans Elldingar leiptra a Jardarkringlunne, So þad Jordenn sier þad og skielfest vid.

5. Biorgenn bradna nidur sem annad Vax fyrer DROTTne, Fyrer Drottnaranum alls Jardrijkis.

6. Himnarner kunngiora hans Riettlæte, Og allt Folk þa sier hans Dijrd.

7. Skammest þeir sijn aller sem þiona Likneskium, og hroosa sier af Skurgodum,* Til bidied Hann aller Guder. *Ebr. 1, 6.

8. Zion heyrer þad og gledst vid, og Dæturnar Juda þær gledia sig, DROTTinn yfer þinne (a) Rijkisstiornan.

(a) Ebraice, Vegna þinna Dooma.

9. Þviad þu DROttinn ert Sa hinn Hæste j ollum Londum, Þu ert miog upphafenn yfer alla Gude.

10. Þier sem elsked DROTTinn, hated hid Vonda, DROTTinn hann vardveiter Sæler sinna Heilagra, ut af Hende Ogudlegra þa mun hann frelsa þær.

11. Hinum Riettlaata hlytur ætijd (b) Liosed upp aptur ad renna, Og Glede j Hiortum þeirra Froomu.

(b) (Liosid) Þad er, Lucka og Farsælld.

12. Þier Riettlaater! gledied ydur j DRottne, Og þacked honum, og prijsed hans Heilagleik.

## XCVIII. Psalmur.

Psalmistenn bydur ollu Folke og rædur þvi ad vegsama og lofa Messias.

Eirn Psalmur.

Synged DROTTne Nyann Saung, þviad hann giører Dasemdarverk, Hann vinnur Sigur med sinne Hægre Hende, og med sijnum Heilogum Armlegg.

2. DROTTinn lætur sitt Hialpræde kunnugt verda, Fyrer Folkenu lætur hann sitt Riettlæte openbera.

3. Hann minntest a sijna Miskun og Sannleika, vid Hused Israels. Oll Endemork Jardarennar sioa Hialpræded Guds vors.

4. Synged hvatt Lof DROTTNE oll Verolldenn, synged, vegsamed og lofed.

5. Lofed DROTTinn med Horpunne, Medur Horpum og Psalmum.

6. Medur Her-Ludrum og Basunum, Synged hvatt lof DROTtne þeim Konungenum.

7. Sioafarhafed þad þioote upp, og hvad þar er inne, Jardarkringlann og þeir þar uppa bua.

8. Þau rennande Votnenn hafe Loofatak med Glede, Og Fiollenn sieu gladvær.

9. Fyrer DROTTne, þviad hann kiemur ad dæma Jardrijked, Hann mun Jardarkringluna dæma med Riettlæte, og Folked med Riettindum.

## XCIX. Psalmur.

Psalmistenn talar um Rijke Messiæ, og hversu ad þvi mune verda hattad.

DROTTinn hann er Kongurenn, fyrer þad æder Folked, Hann situr yfer Cherubim, þar fyrer hrærer sig Verolldenn.

2. DROTTinn er Mikell til Zion, Og Haar upp yfer ollu Foolke.

3. Þacke Menn þijnu Miklu og Dasamlegu Nafne, Hvort ed Heilagt er.

4. J (a) Rijke þessa Kongsins þa elska menn Riettenn, Þu giefur Fromleika, Þu tilsetur Doom og Riett j Jacob.

(a) Ebraice, Og Kongurenn er sterkur, hann elskade Riettenn.

5. Upphefied DROTTinn Gud vorn, Tilbi-

Tilbidied fyrer hans Foot Skør, þviad hann er Heilagur.

6. Moses og Aaron medal hans Presta, Samuel medal þeirra sem hans Nafn aakalla, Peir aakalla DROTTinn, og hann bænheyrer þa.

7. Hann talade vid þa j giegnum eirn Skij-Stolpa, Peir hielldu hans Vitnisburde, og þau Bodord sem hann gaf þeim.

8. DROTTinn! þu ert vor GUd, þu bænheyrer þa, Þu GUd fyrergafst þeim, og straffader þeirra Breytne.

9. Upphefied DROTTinn vorn GUd, og tilbidied fyrer hans Heiløgu Fialle, Pviad DROTTinn vor GUd, hann er Heilagur.

## C. Psalmur.

Þackargiørd fyrer Guds Naadarrijka Kollun, Miskunseme og Sannleika.

Eirn Þacklætis Psalmur.

Synged haatt Lof DROTTNE øll Verolldenn.

2. Þioned DROTTne med Fognude. Komed fyrer hans Asionu med Gladværd.

3. Medkienned þad DROttinn er GUd, Hann hefur giort oss, og ecke sioalfer vier, Sier til Folks, og til Sauda sijns Haglendis.

4. Ganged jnn um hans Borgarhlid med Þackargiørd, ad hans Forgarde med Lofgiørd, Packed honum, lofed hans Nafn.

5. Pviad DROTTinn hann er liufur, Og hans Miskunseme varer eylijflega, og hans Sannleikur um Alldur og Æfe.

## CI. Psalmur.

David talar (I) um einn Gudhræddann, (II) Godlyndann, og (III) Vitrann Kønung.

Psalmur Davids.

I. Ut af Naadenne og Riettenum vil eg syngia, Og þier DROTTinn Lof segia.

II. 2. Forsioalega og skilvijslega breyte eg vidur þa sem mier til koma, Og geing Trulega framm j mijnu Huse.

III. 3. Eg tek mier eckert Vondt Maalefne til, Eg stugga vid honum sem jlla giorer, og læt hann ecke hioa mier vera.

4. Eitt fraleitt Hiarta þad hlytur fra mier ad vijkia, Hinn Illgiarna Lijd eg ecke.

5. Hann sem Heimuglega bakmæler sijnum Naunga, þann afmaae eg, hann sæ eg og eige lided sem drambsamt Vidmoot og Metnadarfullt Gied hefur.

6. Mijn Augu lijta epter þeim Trulyndu j Landenu, so ad þeir bue hioa mier, Og giarnann þa hefe eg frooma Pienara.

7. Underhyggiusamt Folk þa helld eg ei j mijnu Huse, Hiuer Lygegiørnu þrijfast ecke hioa mier.

8. Snemma þa afmaae eg alla Ogudlega j Landenu, So þad eg afmaae alla Illgiordamenn ut af Borgenne DRottins.

## CII. Psalmur.

Bæn og Andvarpan einnar Harmþrungennar Saalar.

Bæn hins Faaraada, nær ed hann er Sorgfullur, og fyrer DROTTne utheller sinne Kløgun.

2. DROTTinn! heyr þu mijna Bæn, Og laattu mitt Kall til þijn Koma.

3. Byrg ecke þitt Andlit fyrer mier, j Anaudenne þa hneig þu þitt Eyra til mijn, nær ed eg kalla a þig þa bænheyr þu mig sem skiotast.

4. Pviad mijner Dagar eru j burtu lidner sem Reykur, Og mijn Bein þau eru brennd lijka sem annar Elldebrandur.

5. Mitt Hiarta er sleiged og uppþornad lijka sem annad Gras, So þad eg forgleyme mijns Brauds ad neyta.

6. Mijn Bein þau loda vid mitt Holld, ut af Graate og Andvarpan.

7. Eg em ordenn lijka so sem Reyrstorkur a Eydemorku, eins lijka em eg vordenn so sem onnur Naatt-Ugla j nidurbrotnum Stodum.

8. Eg vake, Og em so sem einmana Fugl a Huß-þekium.

9. Daglega nyda mig mijner Oviner, og þeir ed hæda ad mier, sveria um mig.

10. Hviad Oſkuna et eg lijka sem Braud, Og med Harmenum samblanda eg minn Drick.

11. Fyrer þinne Ognan og Reide, Hviad þu hefur upplyft mier, og mig j Grunn nidursteiged.

12. Mijner Dagar eru j burtu lidner sem Skugge, Og eg em so sem annad Hey uppvisnadur.

13. Enn þu DROttinn blijfur æfinnlega, Og þijn Minning um Alldur og Æfe.

14. Tak þig upp og vert Miſkunsamur yfer Zion, Hviad Tijmenn er til, ad þu siert henne lijknsamur, og su Stund er komenn.

15. Hviad þijner Þioonustu-Menn villdu fegner ad hun uppbiggdest, og sæe (a) giarnan þad hennar Steinar og Kalk tilbwed yrde.

(a) ∝ Ebreskn, Og aumka sig yfer hennar Dupte.

16. So þad hiner Heidnu Ottudust Nafned DROTTins, og aller Konungarner a Jordu þijna Dijrd.

17. Ad DROTTinn hann uppbiggde Zion, og byrtest j sinne Dijrd.

18. Hann snyr sier til Bæna hinna Fyrerlitnu, og forsmaaer ecke þeirra Bæn.

19. Þad verde (b) ritad uppa Epterkomendurnar, og þad Folk sem skapad skal verda mun lofa DROTTinn.

(b) (Ritad) Svo ad þad predikad verde.

20. Hviad hann lijtur ut af sinne Heilagre Hæd, og DROttinn hann sier af Himne ofan a Jordena.

21. So ad hann heyre Andvarpan hins Hertekna, og leyse Born Daudans.

22. Uppa þad þeir predike Nafned DROttins til Zion, og hans Lof til Jerusalem.

23. Þa ed Folked kiemur til samans, og Kongarijkenn, DROTTne ad þiona.

24. Hann nidurlægde a Vegenum minn Krapt, Hann stytte mijna Daga.

25. Eg sege, Minn Gud! Tak mig ecke burt ad (c) hæalfnudum mijnum Dogum, þijn aar þau vara æ og alltijd.

(c) (Hæalfnudum) Þad er, Aadur enn eg vænte þeſs.

26. *Þu hefur aadur fyrre Jordena grundvallad, og Himnarner eru þijn Handaverk.

* Ebr. 1, 10.

27. Þeir munu forganga, enn þu blijfur, aller munu þeir fyrnast, so sem annad Fat, þeir (d) munu skiptast so sem annad Klæde, þa ed þu umskipter þeim.

(d) ∝ Ebreskn, Þu munt umbreyta þeim sem ødru Klæde, og þeir munu umbreytast.

28. Enn þu blijfur sem þu ert, og þijn Aar taka øngvann Enda.

29. Born þinna Þionustu-Manna munu blijfa, og þeirra Sæde mun tingast fyrer þier.

## CIII. Psalmur.

Þackargiørd Davids fyrer Guds Naad og Miſkunseme.

Psalmur Davids.

Lofa þu Saala mijn DROttenn, og allt hvad j mier er, hans Heilaga Nafn.

2. Lofa þu DRottinn, Saala mijn, og forgleym ei þvi goodu sem hann hefur giort mier.

3. Hann, hvor ed fyrergiefur þier allar þijnar Synder, og græder allar þijnar Meinsemder.

4. Hvør ed frelsar þitt Lijf ut af Fordiørfunenne, Hvor ed koronar þig med Naad og Miſkunseme.

5. Hvor ed þinn Munn gladværann giorer, og þu verdur ungur aptur, lijka sem annar Orn.

6. DROttinn hann utvegar þeim Riettlæte og Dom, ollum sem Rangindenn lijda.

7. Hann liet Moysen vita sijna Vegu, og Jsraels Born sijn Verk.

8. Lijknarfullur og Miſkunsamur er DRottinn, Þolinnmodur og harla Goodgiarn.

9. Hann mun ei æfenlega (a) þratta, og ecke eylijflega Reidenne hallda.

(a) (Þratta) Þad er, ad vera Onaadugur.

10. Hann breyter ei vidur oss epter vorum Syndum, og endurgielldur oss ecke epter vorum Misgiorningum.

11. Hvad so hꜵtt sem þad Himenenn er upp yfer Jordenne, þa lætur hann sijna Naad volldugleg vera yfer þeim sem hann ottast.

12. So fiærre sem þad Austred er fra Vestrenu, lætur hann vorar Yfertrodslur fra oss vera.

13. Lijka sem þad Faderenn er Bornunum Lijknsamur, Eins þa er DROttinn Miskunsamur vid þa sem hann oottast.

14. Þviad hann þecker vora (b) Skopun, Honum til Hugar kiemur þad vier erum Dupt.

(b) (Skopun) Hvad veik Bygging med einu aumu stuttu Lijfe vier erum.

15. Madurenn er um sijna Lijfdaga sem annad Gras, Lijka sem Bloomstred a Vellenum blomgast hann.

16. Nær ed Vindurenn geingur þar yfer, þa er hann ei meir, og hans Stadur (c) þecker hann ei meir.

(c) (Þecker) Þad er, Hann veit ecke meir af þvi Blomstre, Og minnest þess ecke leingur, þad er, þar verdur eckert Merke þar epter edur Minning þess framar meir.

17. Enn Miskun DROttins varer fra Eylijfd til Eylijfdar, yfer þeim sem hann oottast, og hans Riettlæte yfer Barna Bornunum.

18. J hia þeim sem hallda hans Saattmꜵla, og minnast a hans Bodord, so ad þeir giore þar epter.

19. DROttenn hann hefur sinn Stool a Himnum tilbwed, og hans Rijke þad drottnar yfer ollum Hlutum.

20. Lof seged DRottne þier hans Einglar, þier oflugar Kiempur sem hans Erende utrietted, so ad heyrest Raustenn hans Orda.

21. Lofed DROttinn allar hans Herſveiter, Hans Þienarar þier sem hans Vilia giored.

22. Lof seged DROttne oll hans Verk j ollum Stodum hans Herradæmis, Lof seg þu Ønd mijn DROttne!

# CIV. Psalmur.

Þackargiord til Guds fyrer hans Storu Velgiorninga med Skopudum Hlutum (I) Bæde a Himnenum; (II) og so a Jordunne; og (III) Lijka so j Hafenu.

I. Lof seg þu DROttne Saala mijn, DROttinn Miñ Gud! nærsta vegsamlegur ertu, Fagurligana og Dijrdarlega ert þu pryddur.

2. Þinn Klædnadur er Liooſid sem þu ert j, þu utbreider Himenenn sem annad Vefnadar Tialld.

3. Þu hvelfer hann ofann med Votnonum, þu fer a Skijunum sem a odrum Vagne, og geingur a Fiodrum Vindsins.

4.* Þu sem giorer þijna Eingla ad Vinde, og þijna Þienara ad Ellds Loga.

* Ebr. 1, 7.

II. 5. Þu sem grundvallar Jardrijked a sinne Stadfestu, so ad þad blijfur um Alldur og Æfe.

6. Medur Diwpenu hylur þu þad, svo sem med odru Klæde, og Votnenn standa upp yfer Fiollonum.

7. Enn fyrer þinne Stroffun þa flya þau, Fyrer þijnum Reidarþrumum fara þau burt þadan.

8. Fiollenn þau gnæfa hꜵtt upp, og Fleterner setia sig nidur under, j þeim Stad sem þu grundvallader þeim.

9. Takmark hefur þu sett, þar komast þau ei ut yfer, og þau meiga ecke Jordena aptur hylia.

10. Þu lætur Brunnana uppspretta j Dolonum, so þad Votnenn framm fliota mille Fiallanna.

11. So þad oll Dyr a Morkenne drecke, og þad Villudyrenn slocke sinn þorsta.

12. Hia þeim hinum sómum sitia Fuglar Himensins, og syngia a mille Vidarkvistanna.

13. Þu vokvar Fiollenn hier ofan ad, þu fyller Landed af Avextenum þeim þu giefur.

14. Þu lætur Grased upp spretta fyrer Fienadenn, og (a) Sæded Mønnum til Nytsemda, so þad þu utleider Brauded af Jordunne.

(a) a Ebreſku, Jurter.

15. Og ad Vijned gledie Mannsins Hiarta, og ad hans Asioan dæeleg verde ut af Vidsmiørenu, og ad Brauded stirke Mannsins Hiarta.

16. So ad Skoogar-Trien (b) DRottins standa full med Vøkvan, þau Cedrus-Trien j Libanon sem hann hefur plantad.

(b) Trie DRottins kallar hann þau sem j Skogenum standa, og ei eru af Mønnum plontud.

17. Þar hreidra sig Fuglarner, og Storkarner byggia uppe j Grenevidar-Trioanum.

18. Þau Hoafu Biørgenn eru Steingeita Athvarf, og Biargskorurnar Kunis-Dyranna.

19. Þu giører Tungled, Aarenu þar epter ad skipta, Soolenn hun veit sijna Nidurgaungu.

20. Þu giører mirkt so ad Noottenn verdur, þa hreifa sier øll Villudyr.

21. Þau enu ungu Leonenn sem grenia epter Broadenne, og leita sinnar Fædslu af Gude.

22. Enn nær Soolenn geingur upp, hafa þau sig burt þadan, og leggia sig j sitt Bæle.

23. Þa geingur Madurenn ut til sinnar Vinnu, og til sijns Akurverks, allt fram ad Kvollde.

24. DROTTinn! Hvornenn eru þijn Verk so stoor og morg, øll hefur þu þau med Speke tilsett, og Jordenn er full af þinne (c) Godgyrne.

(c) a Ebreſku, Eign.

III 25. Sioafar-Hafed þad sem er so vijdt og miked, þar sveima jnne otelianlegar bæde smoar Kindur og stoorar.

26. Þar ganga Skipenn, þar eru þeir Hvaler, hvoria ed þu hefur giort, so ad þeir leika sier þar jnne.

27. Þad vonar allt uppa þig, so ad þu giefer þvi Fædslu a sijnum Tijma.

28. Nær ed þu giefur þeim, þa samansafna þeir, Nær er þu upp lykur þinne Hende, þa verda þeir med (d) goodu sadder.

(d) (Sadder) Þad er, Þeir verda Glader.

29. Hylur þu þitt Andlit þa skielfast þeir, þu j burt tekur þeirra Andardroatt, þa fyrer farast þeir, og verda þeir aptur ad Dupte.

30. Þu utlætur þinn Anda, þa skapast þeir, og þu endurnyar Mind Jardarennar.

31. Dijrdenn DROTTins er eylijfleg, DROTTinn hefur Þocknan a sijnum Verkum.

32. Hann oalijtur Jordena, þa skielfur hun, Hann oahrærer Fiollenn þa rykur af þeim.

33. Eg vil Lof syngia DROTTne mijna Lijfdaga, Og minn Gud lofa, so leinge sem eg er.

34. Mijn Ræda verde honum þægeleg, eg gledst j DROttne.

35. Hiner Syndugu hlioota einn Enda ad taka a Jordunne, og hiner Ogudhræddu ei leingur ad vera, Lofa þu DRottinn Saala mijn, Haleluja.

## CV. Psalmur.

Þackargiørd fyrer þær Velgiørninga sem Gud hafde auglyst Israels Børnum allt fra þvi er Abraham lifde, til þess ad Josua var a Døgum.

Þacked þier DROTTne, og prediked hans Nafn, kunngiored hans Verk, a medal Folksins.

2. Synged af honum, og lofid hann, taled um allar hans Doadsemder.

3. Hroosed hans Heilaga Nafne, Hiartad þeirra sem DROTTins leita þad gledie sig.

4. Spyried epter DROTTne og epter hans Magt, Leited hans Andlitis a alla Vegu.

5. Minnest hans Doadsemdarverka, þau ed hann hefur giort, Hans Furduverka og hans Ords.

6. Þier Sæde Abrahams hans Þionustumanns, þier Børn Jacobs, hans enu Utvøldu.

7. Hann er DROTTinn vor Gud, Hann dæmer j allre Verolldu.

8. Hann minnest sijns Sattmaala eylijflega, þess Ordsins sem hann hefur fyrerheited, mørgum Pusundum æ og alltijd.

9. * Sem hann hefur giort vid Abraham, Pess Eids vid Isaac.

* Luc. 1, 73. Ebr. 6, 17.

10. Og hann sette Jacob pad sama til eins Riettar, Og Jsrael til Eylijfs Sattmaala.

11. Og sagde, Pier vil eg giefa Landed Canaan, Hlutfall ydar Arfleifdar.

12. Pa ed þeir voru faaer og audvirdeleger, og utlender þar jnne.

13. Og þeir foru fra eirnre Piood til annarar, og odru Rijkenu til eins annars Folks.

14. Ongvann Mann liet hann þeim Skada giora, Og Kongana þa straffade hann þeirra vegna.

15. Snerted ecke mijna þa hina Smurdu, Og giored mijnum Prophetum eckert Mein.

16. Og hann liet Hallære koma yfer Landed, Og j burt svipte øllum Tilføngum Braudsins.

17. Hann sende eirn Mann undan þeim, Joseph var til Præls selldur.

18. Peir þvingudu hans Fætur j Stocke, Hans Lijkame Hlaut j Jaarne ad liggia.

19. Allt þangad til ad hans Ord þad kom, Og Ræda DROTtins gagnhreinsade hann.

20. Pa sende Kongurenn ut og liet laata hann Lausann, Høfdingenn Folksins skipade hann ut ad laata.

21. Hann sette hann Herra yfer sitt Hus, til Stiornara yfer allar sijnar Eigner.

22. So þad hann mentade hans Høfdingia epter hans Vijsu, Og Vijsdom kiennde hans Olldungum.

23. Og Jsrael foor j Egyptaland, Og Jacob vard eirn Framande Mann j Landenu Ham.

24. Og * hann liet sitt Folk aukast mióg, Og giørde þa Megtugre enn þeirra Ovine.

* Giørnb: Post: 7, 17.

25. Hann umsnere þeirra Hiortum, so ad þeir urdu hans Folke reider, Og þeinktu sier med Slægd hans Pienara nidur ad kefia.

26. Hann sende sinn Pioon Mosen, Aaron þann ed hann hafde utvaled.

27. Peir hiner somu giordu hans Teikn a medal þeirra, Og hans Stoormerke j Landenu Ham.

28. Hann liet Myrkurenn koma, og giorde dymmt, Og þeir voru ecke ohlyduger hans Ordum.

29. Hann snere Votnum þeirra j Blood, Og drap þeirra Fiska.

30. Peirra Land vall af Poddum, Jnn j þau hinu innstu Herberge þeirra Konga.

31. Hann sagde, þa komu Jllsku-Ormar, Lys j allra þeirra Lands-aalfur.

32. Hann gaf þeim Hagl til Regns, Ellds Loga j þeirra Land.

33. Og sloo þeirra Vijnvid og Fiknatrie, Og j sundurbraut Trien j þeirra Takmorkum.

34. Hann sagde, þa komu Eingesprettur, Og Gras Madkar otal.

35. Og þeir aatu upp allt Gras j þeirra Lande, Og þeir aatu upp allann Avoxt a þeirra Akurlondum.

36. Og hann sloo allann Frumgietnad a Egyptalande, alla þeirra Firstu Erfingia.

37. Og hann utleidde þa med Silfre og Gulle, Og j bland þeirra Slecktis var eingenn Vansær.

38. Egyptaland gladdest vid ad þeir utforu, þviad Hrædsla þeirra var yfer þa fallenn.

39. Hann breidde ut eitt Skij til ad skyla þeim, Og Elldenn a Nottunne til ad lysa.

40. Peir beiddu, þa liet hann Vacktelur koma, og hann sadde þa med Himna-Braude.

41. Hann opnade Hellubiarged, þa rann Vatn ut þadann, so ad þar runnu Læker j þurrlendre Eydemorku.

42. Pviad hann minntest a sitt Heilaga Ord, Sem hann hafde talad til Abrahams sijns Pionustumanns.

43. Þannenn utleidde hann sitt Folk med Fagnade, Og sijna Utvalda med Glede.

44. Og gaf þeim Londenn Heidingianna, so þad þeir eignest Audæfe Þiodanna.

45. Uppa þad, ad þeir skyllde hallda hans Riett, Og vardveita hans Logmaal, Haleluja.

## CVI. Psalmur.

Hiartanleg Jdran Gydinga-Folks i þeirre Babylonisku Herleidingu.

Haleluja.

Þacked þier DROttne, þviad hann er good ur, Og hans Miskunseme varer eylijflega.

2. Hvor kann þau miklu Verk DROTTins ut ad segia? Og øll hans vegsamlegu Verk ad lofa?

3. Sæler eru þeir sem hallda hans Bodord, Og giora alla Tijma hvad Riettvijslegt er.

4. Minnstu mijn DROttinn! epter þeirre Miskun ed þu hefur heited þijnu Folke, audsyn oss þijna Hiaalp.

5. So ad vier meigum siaa Velferd þinna Utvaldra, og gledia oss yfer þvi, þad þijnu Folke vel vegnar, Og ad hroosa oss medur þinne Arfleifd.

6. Vier høfum syndgast medur vorum Forfedrum, Vier høfum misgiort og høfum Ogudhrædder vered.

7. Fedur vorer a Egyptalande villdu ecke skilia þijnar Daadsemder, Þeir hugleiddu ecke þijna miklu Miskunseme, Og voru ohlyduger vid Siaafarhafed, sem var vid Hafed Rauda.

8. Enn hann hiaalpade þeim fyrer sijns Nafns Saker, So ad hann audsynde sijna Magt.

9. Og hann hastade a Hafed Rauda, þa vard þad þurt, Og hann leidde þa j giegnum Diuped, lijka sem um adra Eydemørk.

10. Og hiaalpade þeim ut af Hende þess sem þa hatade, Og leyste þa ut af Hende Ovinarins.

11. Og Vatned þad dreckte þeirra Motstødu-Mønnum, Svo þad ei eirn vard epter.

12. Þa trudu þeir a hans Ord, Og sungu hans Lof.

13. Enn þeir forgleymdu snarlega hans Verkum, Þeir bidu ecke epter hans Raadum.

14. Og þeir feingu Gyrndar-Fysn a Eydemorkenne, Og freistudu Guds a þeim Oræfis Obyggdum.

15. Og hann veitte þeim þeirra Bæn, Og sende þeim (a) Roog, þar til þa velgde þar vid.

(a) Ebr. Og sende þeim Fordiorfun uppa þeirra Saal.

16. Og j Herbudunum settu þeir sig uppa moote Mosen, J mot Aaron þeim Heilaga DROTTins.

17. Jordenn opnade sig og gleypte Dathan, Og hulde Hoop Abirams.

18. Og Elldurenn tendradest upp j þeirra Hoop, Logenn hann uppbrennde hina Oguðlegu.

19. Þeir giordu sier Kaalf j Horeb, Og tilbaadu þad steypta Bylæte.

20. Og þeir umsneru (b) þeirra Dijrd, j Lijking Nauts þess ed Grased etur.

(b) Þad er, Gude. Rom. 1, 23.

21. Þeir forgleymdu Gude sijnum Hiaalpar-Manne, Hvor ed soddan Stoormerke hafde giort a Egyptalande.

22. Daadsemdarverkenn j Landenu Ham, og þau Hrædelegu Verk j Hafenu Rauda.

23. Og hann sagde, þad hann villde afmaa þa, Ef ad Moses hans hinn Utvalde hefde ecke aptrad þeirre Eydeleggingu, til ad frasnua hans Reide, so ad hann glatade þeim ecke med ollu.

24. Og þeir forsmaadu þad hid aagiæta Landed, Þeir trudu ecke hans Ordum.

25. Og þeir mogludu j sijnum Land-Tiølldum, þeir hlyddu ecke Raust DROTTins.

26. Og hann hoof sijna Hond upp j moote þeim, so þad hann nidurslæe þa j Eydemorkenne.

27. Og hann j burt fleygde þeirra Sæde med

medal Heidenna Pioda, og j sundurdreifde þeim ut j Londenn.

28. Og þeir gaafu sig til Baal Peor, og aatu af Foornfæringum daudra Skurgoda.

29. Og þeir reittu hann med sijnum Verkum, Pa brautst og Plaagann framm a medal þeirra.

30. Pa gieck framm ad Phineas og (c) mykte Sokena, þa took Plaagann ad stillast.

(c) Ebr. Hiellt Doom.

31. Og þad sama vard honum reiknad til Riettlætes, framar og framar, æfenlega.

32. Og þeir styggdu hann vid Motmælis Vatned, Og plaagudu Mosen jlla.

33. Þviad þeir angrudu hans Hiarta, so ad honum hrutu nockur Ord.

34. Ecke helldur afmaadu þeir þær Pioþernar, so sem ad DROTTinn hafde þo skipad þeim.

35. Helldur samblondudu þeir sig medal þeirra Heidnu, Og lærdu Verkenn þeirra hinna somu.

36. Og þionudu þeirra Skurgodum, þau enu somu urdu þeim til Hneixlunar.

37. Og þeir offrudu Sonu sijna, og Dætur sijnar Dioflonum.

38. Og þeir uthelltu saklausu Blode, Blode Sona sinna og Dætra sinna, sem þeir offrudu Skurgodum Canaans, So ad Landed vard med Bloodskulldum fleckad.

39. Og þeir saurgudu sig med sijnum Verkum, og drijgdu Hooraner med sijnum Verkum.

40. Pa gramdest Reide DROttins yfer hans Folke, og styggade vid sinne Arfleifd.

41. Og gaf þa j Hendur Heidingianna, so ad þeir sem þa hotudu drottnudu yfer þeim.

42. Og þeirra Oviner þreyngdu ad þeim, og þeir urdu lijtelætter under þeirra Hondum.

43. Hann frelsade þa optsinnis, enn þeir reittu hann med sijnum Asetningum, og urdu þvi faaer fyrer sijna Misgiorda saker.

44. Og hann aaleit þeirra Neyd, þa ed hann heyrde þeirra Kveinan.

45. Og hann minntest a sinn Saattmaala vidur þa giordann, og hann jdradest þess epter Mikelleik sinnar Miskunsemdar.

46. Og liet þa koma til Miskunar, fyrer ollum þeim sem þa hofdu fangad.

47. Hiaalpa þu oss, DROttinn Gud vor! og samansafna oss j burt fra Heidnum Piodum, so ad vier þockum þijnu Heilogu Nafne, og prijsum þitt Lof.

48. Lofadur sie DROttinn Gud Jsraels, fra Eylijfd til Eylijfdar, og allt Folked sege, Amen, Halleluja!

## CVII. Psalmur.

Þacklæte vid Gud fyrer Frelsun ur Margskonar Neyd, (I) Fra Orbyrgd og Volæde; (II) Fra Herteknin og Þreyngíng; (III) Fra Haade og Sinkdome; (IV) Ur Siaafarhaaska; (V) Fra Hita og Þurk; (VI) Fra Ysergange og Tyranna-Æde.

I. Packed þier DROttne, þvi hann er goodur, og hans Miskunseme varer ad eylijfu.

2. Seged þier sem frelsader erud af DROttne, hvoria hann hefur endurleyst ut af Neydenne.

3. Og þeir sem hann hefur saman safnad burt ur Londunum, fra Austre, fra Vestre, fra Nordrenu, og fra Siaafar-Hafenu.

4. Þeir sem villter foru j Eydemorkenne, a þeim Oræfisveigenum, og fundu ongvann Stad, þar þeir gaatu bwed.

5. Hungrader og þyrster, og Saal þeirra vanmegnadest.

6. Og þeir kolludu til DROttins j sinne Neyd, Og hann frelsade þa ut af þeirra Angist.

7. Og leidde þa riettann Veg, so ad þeir geingu

geingu til þess Stadarins þar ed þeir giœte j bwed.

8. Þeir hiner sömu skulu DRottne Packer giora fyrer hans Dœadsemder, þær ed hann veiter Mannanna Børnum.

9. Þad hann sedur þurstuga Sœalu, og uppfyller hungrada Sœalu med goodu.

II. 10. Þeir ed hliota ad sitia j Mirkre og Dymmu, fœangader j Þvingan og Joarnum.

11. Þar fyrer, ad þeir voru ohlyduger Guds Bodordum, Og hœfdu vanvirdt Løgmœal hins Hærsta.

12. Þar fyrer hlaut þeirra Hiarta med Ogiæfu ploagad ad verda, So ad þeir lœau þar, og eingenn hiœalpade þeim.

13. Og þeir kolludu til DROttins j þeirra Neyd, og hann hiœalpade þeim ut af þeirra Angist.

14. Og leidde þa ut af þeim Mirkrunum og Skugganum, og sundur sleit þeirra Fiotraner.

15. Þeir skulu DROttne Packer giora fyrer hans Miskunseme, og fyrer hans Dœadsemder þær ed hann veiter Mannanna Børnum.

16. Ad hann sundur brytur Eyr-Hlidenn, og j sunndurslær Joarngrindurnar.

III. 17. Þeir Heimsku Menn sem ploagader voru vegna sinnar Yfertrodningar, og fyrer sinna Synda saker.

18. So ad þa velgde vid ollum Mat, og urdu Daudsiuker.

19. Og þeir kolludu til DROttins j þeirra Neyd, og hann hiœalpade þeim ut af þerra Angist.

20. Hann sende sitt Ord, og giørde þa heilbrigda, og frelsade þa, so ad þeir lietust ecke.

21. Þeir skulu DROttne Packer giora fyrer hans Miskunseme, og fyrer hans Dœadsemder, þær ed hann veiter Mannanna Børnum.

22. Og Packlæte offra, og framm telia hans Verk med Fognude.

IV. 23. Þeir ed med Skipunum fara a Sionum, og fremia sijna Hondlun a þeim Stooru Votnum.

24. Þeir ed Verkenn DRottins hafa forsookt, og hans Dœadsemder j Sionum,

25. Nær hann talade, hreisde sier Storm-Vindurenn, sa ed Olldurnar upphoof.

26. Þeir fooru upp til Himensins, og foru allt j Diwpenn nidur, so ad þeirra Ønd ørvænte fyrer Angist.

27. So ad þeir tumbudu og reikudu sem annar druckenn Madur, og eingenn Rœad vissu þeir leingur.

28. Og þeir kolludu til DRottins j þeirra Neyd, og hann hiœalpade þeim ur þeirra Angist.

29. Og hann stillte þann stoora Storm, so ad Bylgiurnar lækkudu sig.

30. Og þeir urdu glader vid, þad Logn var orded, og hann leidde þa til Lands epter þeirra Osk.

31. Þeir hiner sømu skulu DROTTne Packer giora, fyrer hans Miskunseme, og fyrer hans Dœadsemder þær ed hann veiter Mannanna Bornum.

32. Og heidra hann j Samkundunne, og losa hann j hiœa Olldungunum.

V. 33. Þeir, hvorra rennande Læker uppþornader, og þeirra Uppsprettu-Brunnar utsijader voru.

34. So þad hid Friossama Landed vard Avaxtarlaust, fyrer saker Illsku þeirra sem þar inne biuggu.

35. Og hann liet j þad þurra Land koma gnoglegt Vatn, og a þurrlended Uppsprettu Brunna.

36. Og sette þar nidur hina Hungrudu, so ad þeir tilbygge sier Stad, þar ed þeir kynne j ad bwa.

37. Og sœa þar Akra, og ad planta Vijngarda, og fœa œarlegann Avoxt.

38. Og hann blessade þa, so ad þeir fiolgudu nærsta, og gaf þeim margt Kvikfie.

VI. 39.

VI. 39. Þeir, hvorier nidur þrickter og þvingader voru, af þeim Illsku-Monnum sem þa þvingudu og j Þioaning hofdu.

40. Þa ed Fyrerlitningunne var uthellt yfer Hofdingiana, so þad allt for villt og var j eyde.

41. Og hann verndade hinn volada ut af Vesolldenne, og fiolgade hans Ætt, lijka sem adra Hiord.

42. Soddan skulu hiner Froomu siaa og glediast af, og a allre Illgyrne skal Munnurenn tilbyrgdur verda.

43. Hvor er skinsamur, og (a) bijhelldur þessu? Þa munu þeir formerkia Hvorsu margar Velgiorder þad DROttinn audsyner.

(a) (Bijhelldur) Þad er, Minnest þetta og hugsar hier epter.

## CVIII. Psalmur.

Bæn, med hverre David bidur, ad hann mætte komast aptur til sijns Konungs-Rijkes.

Psalma-Saungur Davids.

2. GUd! þad er mijn rietteleg Alvara, Eg vil syngia og dickta, mijn (a) Vegsemd og eirnenn.

(a) (Vegsemd) Þad er, Mitt Streingia-Hlioodfære, med hvøriu eg vegsama þig.

3. Rijs upp þu Psalltare og Harpa, Snemma þa vil eg uppe vera.

4. Þier vil eg, DROttinn! Þacker giora medal Folksins, Medal Þioodanna vil eg þier Lof syngia.

5. Þvi þijn Miskunseme tekur so vijdt sem Himinenn er, og þinn Sannleikur so vijdt sem Skijenn utganga.

6. Upphef þig, Gud! yfer Himnana, og þijna Dijrd yfer oll Lond.

7. Uppa þad, ad þijner aastsamleger Viner frelsader verde, hiaalpa þu med þinne Hægre Hende, og bænheyr mig.

8. Gud hann talar j sijnum Helgedoome, þess sama glediunst eg, og vil Sichem sundur skipta, og Dalenn Suchoth af mæla.

9. Gilead er minn, Manasse er eirnenn minn, og Ephraim er Magt mijns Hofuds, Juda er minn Hofdinge.

10. Moab er mitt Þvottunar Kier, Minn Skoo vil eg utrietta yfer Edom, yfer Philisteis vil eg glediast.

11. Hvor vill flytia mig j eirn oruggann Stad? Hvor mun leida mig j Edom?

12. Muntu Gud ecke giora þad, þu sem j burt skufar oss? Og þu, Gud! fer ecke ut med vorum Her.

13. Veittu oss Fullting j Neydenne, þviad Mannleg Hiaalp er ongvu nyt.

14. Medur Gude vilium vier Hreyste-Verkenn giora, Hann mun vora Ovine undertroda.

## CIX. Psalmur.

Spaadomur Davids um þaa Olucku er ætte ad koma yfer Gydinga Folk, af þvi, ad þeir forsmaadu so herfelega þann Messias Heimsins.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

GUd, mijn Hroosun, þeige þu ecke!

2. Þviad þeir hafa sijnum Ogudlegum og Folskum Munne j giegn mier upp loked, og tala a moote mier med folskum Tungum.

3. Og þeir tala Eiturlegana a moote mier alla vegana, og strijda j giegn mier fyrer utan Ordsok.

4. Af þvi eg elska þa, eru þeir a mote mier, Enn eg bidst fyrer.

5. Þeir audsyna mier Illt fyrer Gott, Og Hatur fyrer Elsku.

6. (a) Set þu Ogudhræddann yfer hann, Og þad Satan skule standa honum til Hægre Handar.

(a) Hvad hann kienner odrum, edur lærer af odrum, hans Lijfserne, hans Bæn, vere fordæmt allt saman.

7. Þa hann Dæmest þa reynest hann Ogudlegur, og verde hans Bæn ad Synd.

8. Dagar hans hliote faaer ad verda, Og hans Embætte take* eirn annar. *Joh.17,12. Gb: Post: 1, 20.

9. Hans Born verde Fodurlaus, Og hans Husfru ein Eckia.

10. Hans Born raafe viller Vegar, og

þigge Olmosu, Og fare þurfande lijka sem þeir ed fordiarfader eru.

11. Okurkarlenn utsiuge allt hvad hann hefur, og hiner Annarlegu ræne hans Audæfum.

12. Og eingenn sie sa sem giore honum til goda, Og eige sie sa neirn ed Miskune hans Fodurleysingium.

13. Hans Nidiar þa verde upprætter, Þeirra Nafn verde afskafed j odrum Lid.

14. Misgiorder hans Forfedra þa verde j Minne lagdar fyrer DROTTne, Og Synden hans Modur afmaaest ecke.

15. DROTTinn laate þær alldrei lijda fra sijnum Augum, Og þeirra Minning hlioote upprætt ad verda af Jordunne.

16. Þar fyrer, ad hann hafde so alldeilis ongva Miskun, Helldur Offsokn veitte þeim Faatæka og Volada, og hinum Harmþrungna, ad hann deydde hann.

17. Og hann villde Bølvanena hafa, hun mun og yfer hann koma, Blessunena villde hann ecke, so mun hun eirnen honum fiarlæg verda.

18. Og hann jklæddest Bølvanenne so sem Nærklæde, Og hun er jnn runnenn j hans Jdur sem Vatn, og jnn j hans Bein lijka sem annad Vidsmiør.

19. Verde hun honum lijka sem annad Fat j hvoriu hann er, og so sem þad Bellte med hvoriu hann gyrdest alla Tijma.

20. So verde þeim af DROTTne sem mier mootsnuner eru, Og tala vondslega j giegn minne Saalu.

21. Enn þu DROTTinn DROTTinn! vertu med mier, fyrer þijns Nafns Saker, Þviad þijn Miskunseme er mijn Huggun, Frelsa þu mig.

22. Þviad eg em Faatækur og Faaraadur, Mitt Hiarta er sundursleiged j mier.

23. Eg lijd j burt hiedan sem Skugge, sa ed j burt rekenn verdur, Og eg verd burt rekenn so sem adrar Eingespretttur.

24. Mijn Knie eru veik af Føstu, og mitt Holld er magurt, og hefur øngvann Feitleika.

25. Og eg hlyt þeirra Athlæe ad vera, Nær ed þeir siaa mig þa skaka þeir Hofud sijn.

26. Veit mier Hiaastod, DROTTinn Gud minn, Hiaalpa mier epter Miskunsemd þinne.

27. So ad þeir formerke ad þetta sie þijn Hond, Ad þu DROttinn giorder soddan.

28. * Bølve þeir, þa blessa þu, Setie þeir sig upp a moote mier, þa hliioote þeir til Skammar ad verda, Enn þinn Þion hann gledie sig. * Rom. 12, 14. 1 Petr. 2, 23.

29. Mijner Mootstødu-Menn verde med Smaan Klædder, Og sinne Skømm jklædest þeir, so sem ødrum Kyrtle.

30. Mikelega vil eg DROTTne þacka med mijnum Munne, Og prijsa hann medal margra.

31. Þviad hinum Faatæka stendur hann til Hægre Handar, So ad hann frelse hann j fra þeim sem hans Lijf fyrerdæma.

## CX. Psalmur.

Spaadomur Davids (I) um þad Konunglega, og (II) Kennemannlega Embætte Messiæ.

Eirn Psalmur Davids.

I. * DROttinn sagde mijnum DROttne, ** Set þu þig til minnar Hægre Handar, *** þangad til eg legg þijna Ovine til Skarar Fota þinna.

* Matth. 22, 44. Luc. 20, 42. ** Ebr. 1, 13. *** 1 Cor. 15, 25.

2. DROTTinn mun ut senda Spijru þijns Rijkes af Zion, Drottna þu a medal þinna Ovina!

3. Epter þijna Sigurvinning mun þitt Folk viliuglegana offra þier, j Heiløgum Skruda, Þier munu þijn Børn fædast so sem Døgg-Fall ut af Morgun-Rodanum.

II. 4. * DROTTinn hann hefur svared, og þess jdrast hann ecke, Þu ert eirn Kiennemadur eylijflega, epter Vijsu Melchisedeks.

* Ebr. 5, 6. Cap. 7, 21.

5. DROTTinn til þinnar Hægre Handar

dar hann mun sundursloa Konungana a Tijma sijnar Reide.

6. Hann mun dæma medal Heidenna Pioda, hann mun stoort Slag giora, Hann mun sundursloa Hofudenn yfer storum Londum.

7. Ut af (a) Læknum a Veigenum mun hann drecka, Þar fyrer mun hann Hofuded upphefia.

(a) (Læknum) Hann mun lijda og upprijsa.

## CXI. Psalmur.

Þackargiord til Guds (I) fyrer hans Lijkamlega, og (II) Andlega Blessan.

Halleluja.

I. Eg þacka DROTTne af ollu Hiarta, j Roade þeirra Godu, og j Sofnudenum.

2. Mikel eru Verkenn DROttins, Hvør hann athugar þau sa hefur Sijfellda Lysting þar af.

3. Hvad hann skickar þad er Loflegt og Dijrdlegt, Og hans Riettlæte blijfur eylijflegana.

4. Eina Minning hefur hann giort sinna Stoormerkia, Sa hinn Lijknsame og Miskunsame DROTTinn.

5. Þeim giefur hann Fædslu sem hann ottast, eylijflegana þa minnest hann sijns Saattmaala.

II. 6. Sijn volldug Verk lætur hann kunngiora sijnu Folke, Þad hann giefe þvi Arfleifdena Heidenna Pioda.

7. Verkenn hans Handa eru Sannleikur og Riettinde, Oll hans Bodord eru rietteleg.

8. Þau munu halldast um Alldur og ad eylijfu, Og skie trulega og riettvijslega.

9. Hann sender eina Endurlausn sijnu Folke, Hann lofar þad sinn Saattmaale skule blijfa eylijflegana, Heilagt og Hrædelegt er hans Nafn.

10. * Otte DROTTins er Upphaf Vijsdomsins, Þad er ein Agiæt Vitska, hvør hann giorer þar epter, þess Lofstyr blijfur eylijflega. * Job. 28, 28. Ordskvid. 1, 7. Cap. 9, 10. Syr. 1, 16.

## CXII. Psalmur.

Hiner Gudhræddu hliota Heill og Blessan, og so i þessu Lijfe.

Halleluja.

Sæll er sa sem oottast DROTTinn, Hvør ed hefur mikla Lyst til hans Bodorda.

2. Hans Sæde mun verda volldugt a Jordu, Ætt þeirra Goodu mun blessud verda.

3. Rijkdomur og Nægter munu vera j þeirra Huse, Og þeirra Riettvijse blijfur eylijflegana.

4. Riettferdugum þeim upp rennur (a) Liosed j Mirkrunum, Af þeim hinum Naadarsamlega, Miskunsama og Riettloata.

(a) (Liosed) Þad er, Lucka og Hiaalpræde, midt j Neydenne.

5. Sæll er sa Madur sem hann er miskunsamur, og laanar giarnann, Og utrietter sijn Erende, so þad hann giore aungvum Ranginde.

6. Þviad hann mun æfenlega blijfa, þeim Riettloata mun alldrei gleymt verda.

7. Nær ed einhvør Ploaga kiemur þa hrædest hann ei, Hans Hiarta vonar eflaust uppa DROTTinn.

8. Hans Hiarta er oruggt og hrædest ecke, Þangad til ad hann sier sijna Lyst a sijnum Ovinum.

9. * Hann utdreifer og giefur Faatækum, Hans Riettlæte blijfur æfenlega, hans Horn mun upphafed verda med Vegsemd.

* 2 Cor. 9, 9.

10. Hinn Ogudhrædde mun siaa þad, og fyrer j þykia, sijnum Tonnum mun hann saman bijta, og forganga, Þvi hvad þeir hinu Ogudlegu giarnann villdu, þad er tapad.

# CXIII. Psalmur.

Gud veiter þeim Lijtellaatu Naad.
Halleluja.

Lofed þier DROTTins Þionustumenn, Lofed Nafned DROTTins.

2. Lofad sie Nafned DROTTins, hiedan j fra og ad eylijfu.

3. J fra Uppgongu Solarennar allt til hennar Nidurgongu, Sie lofad Nafned DRottins.

4. DROTTinn er Haar yfer ollum Heidingium, Hans Dijrd geingur so vijdt sem þad Himenenn er.

5. Hvor er slijkur sem DROTTinn Vor GUD? Sa ed hefur sig so hraatt sett.

6. Og lijtur a þad hid auduirdelega, A Himnum og Jordu.

7. Hvor ed Lijtelmagnann uppreiser ur Duptenu, Og forhefur hinn Fraatæka ut af Saurindunum.

8. So ad hann sette hann hiaa Hofdingiunum, J hiaa Hofdingiunum sijns Lyds.

9. Sa sem hina Obyriu lætur bua j Husenu, So þad hun verdur ein gladvær Barna Moder, Halleluja.

# CXIV. Psalmur.

Jsraels Born þacka Drottne fyrer Margar sier tedar Velgiorder.

Þa Jsrael utfoor af Egyptalande, Hused Jacobs j burt fra þvi framande Folke,

2. Þa vard Juda hans Helgedomur, Jsrael hans Vellde.

3. Siaafar-Hafed saa þad og flyde, Jordan hun snere sier a Bak aptur.

4. Fiollenn stucku upp sem Sauder, og Hvalsarner so sem Unger Sauder.

5. Hvad var þier þu Siaafar-Haf! ad þu j burt flyoder? Og þier Jordan! þad þu snerest til Baka aptur?

6. Þier Fioll! ad þier stuckud upp sem Sauder? Og þier Hvalsarner! so sem unger Sauder.

7. Fyrer DROTTne þa bifadest Jordenn, fyrer Gude Jacobs.

8. Hvor ed Hellubiargenu umsnijr til Vatns-Sioar, og Steinunum til Vatns-Brunna.

# CXV. Psalmur.

Menn ega ad setia alla sijna Tru og Traust a hann Odaudlega Þri Eina Gud Himens og Jardar.

Eige oss, DROTTenn! eige oss, helldur þijnu Nafne gief þu Dijrdena, Vegna þinnar Miskunar og Sannleiks!

2. Hvar fyrer þa skulu hiner Heidnu segia, Hvar er nu þeirra Gud?

3. Enn Vor Gud er a Himne, Hann kann ad giora hvad hann vill.

4. Enn hinna annara Skurgod eru Silfur og Gull, af Mannanna Hondum giord.

5. Þau hafa Munna og tala ecke, þau hafa Augu og siaa ecke.

6. Þau hafa Eyru og heyra ecke, þau hafa Naser og ilma ecke.

7. Þau hafa Hendur og þreifa ecke, Fætur hafa þau, og ganga þo ecke, og tala ecke j giegnum sinn Hvals.

8. Þeir ed soddann giora eru eins lijka, og aller þeir ed treysta a þau.

9. Enn Jsrael vone upp a DROttinn, Hann er þeirra Hiaalp og Skiolldur.

10. Hvosed Aarons vone uppa DRottinn, Hann er þeirra Hiaalp og Skiolldur.

11. Hvorier ed ottast DROTTinn, þeir vona einnenn a DROTTinn, Hann er þeirra Hiaalp og Skiolldur.

12. DROTTinn hann minnest vor, og blessar oss, Hann blessar Hvosed Jsraels, hann blessar Hvosed Aarons.

13. Hann blessar þa sem ottast DRottinn, bæde smaa og stoora.

14. DROttinn hann blesse ydur æ meir og meir, ydur og ydar Born.

15. Þier erud þeir Blessudu af DRottne, þeim sem giort hefur Himen og Jord.

16. Hi-

16. Himenenn giorvallur er DRottins, Enn Jordena hefur hann Mannanna Bør-num giefed.

17. Hiner Daudu munu ecke lofa þig, DROttinn! Ecke helldur þeir sem ofan fara j Þøgnena.

18. Helldur vier losum DRottinn, Allt hiedan j fra, og ad Eylijfu, Halleluja.

# CXVI. Psalmur.

Hversu ad Menn ege ad Hugga sig, og vidhallda sier j Krosse og Hørmungum.

Þad sama er mier liuft þad DRottinn hey-rer mijna Raust, og mijna Grœat-beidne.

2. Pad hann hneiger sitt Eyra til mijn, þar fyrer vil eg og um mijna Lijfdaga hann œakalla.

3. Fiotraner Daudans umkrijngdu mig, Helvijtis Angist hafde snorted mig, eg kom j Eymd og Anaud.

4. Enn eg kallade a Nafned DRottins, O DRottenn! frelsa þu Sœalu mijna!

5. DRottinn er Nœadugur og Riettferdu-gur, og vor Gud hann er Miskunsamur.

6. DRottinn hann vardveiter þa Einføll-du, þa ed eg er underlagdur, þa hiœalpar hann mier.

7. Vertu nu til Frids aptur mijn Sœal, þvi DRottinn veiter þier hid gooda.

8. Þvi þu hefur utrickt minne Sœalu ur Daudanum, Augum mijnum af Tœarafløl-lunum, Footum mijnum fra Hrøsunenne.

9. Eg vil ganga fyrer DRottni, a Lande þeirra Lifendu.

10. *Eg true, þar fyrer þa tala eg, Enn eg verd nærsta miog plœagadur. *2 Cor. 4, 13.

11. Eg sagde j mijnu Mistrauste, *Aller Menn þa eru (a) Liugarar. *Rom. 3, 4.

(a) (Liugarar) Þad er, Ecke er treystanda uppa noc-kurn Mann, þvi þad svijkur um sijder, og kann ecke ad hiœalpa.

12. Hvornenn skal eg DRottne endur-giallda, Fyrer allar hans Velgiorder þær ed hann veiter mier?

13. Þann Heilsusama Kaleik vil eg med-taka, og Nafned DRottins predika.

14. Eg vil giallda DRottni mijn Heit, fyrer øllu hans Foolke.

15. Daude hans Heilagra er Dyrmætur halldenn, fyrer DRottne.

16. O DROTTinn! eg em þinn Þion, Eg em þinn Þion, Sonur þinnar Ambœat-tar, þu hefur mijn Bond j sundur slited.

17. Þier vil eg Packlæte offra, og Nafned DRottins predika.

18. Eg vil giallda DRottne mijn Heit, fyrer øllu hans Folke.

19. J Forgardenum hiœa Hwse DRot-tins, j þier Jerusalem! Halleluja.

# CXVII. Psalmur.

Spœadomur um Kollun Heidenna Þioda til Rijkes Messiæ.

* Lofed DRottinn aller Heidingiar, Prijsed hann aller Lyder. *Rom. 15, 11.

2. Þviad hans Miskunseme og Sannlei-kur hefur Yfer-Rœad yfer oss Eylijflegana, Halleluja.

# CXVIII. Psalmur.

Packlæte fyrer þœa Storu Velgiørninga Messiæ.

Packed þier DRottne, þviad hann er godur, og hans Miskunseme varer eylijflegana.

2. Pad sege nu Jsrael, Hans Miskun varer eylijflegana.

3. Pad sege nu Hwsed Aarons, Hans Miskunseme varer ad eylijfu.

4. Þeir sem ottast DRottenn sege nu, Hans Miskunseme varer eylijflegana.

5. J Hørmungenne œakallade eg DRot-tinn, og DRottinn bænheyrde mig og veitte mier Huggun.

6. *DRottinn er medur mier, þar fyrer hrædunst eg ecke, Hvad meiga mier Menner-ner giora? *Ebr. 13, 6.

7. DRottinn er med mier, mier til Hiœal-par,

par; og eg vil sioa mijna Lysting a Ovinum mijnum.

8. Gott er ad treysta uppa DRottinn, og forlaata sig ecke uppa Mennena.

9. Gott er ad treysta uppa DRottinn, og vona ecke uppa Hofdingiana.

10. Aller Heidingiarner umkringia mig, Enn j Nafne DRottins þa vil eg hoggva þa nidur.

11. Þeir umkringia mig øllumeigenn, Enn j Nafne DROTTins vil eg nidurhoggva þa.

12. Þeir umkringia mig lijka sem Biflugur, þeir (a) kefiast so sem Elldur j Þyrnum, enn j Nafne DROTTins þa vil eg nidurhoggva þa.

(a) (Kefiast) Það er, Þeir hlaupa aller ad utslockva, so sem ad munde Verolldenn brenna af mijnum Lærdome, Eingenn vill vera sijdstur.

13. Menn hrundu mier, þad eg skyllde falla, Enn DROttinn hann hiaalpar mier.

14. DRottinn er minn Stirkur, og minn Psalmur, og hann er mitt Hiaalpræde.

15. Menn syngia med Fagnade af Sigrenum j Tialldbudum Riettferdugra, Hægre Hondenn DRottins bijhelldur Sigrenum.

16. Hægre Hond DRottins er upphafenn, Hægre Hond DRottins bijhelldur Sigrenum.

17. Eg mun ei deya, helldur lifa, og kunngiora Verkenn DROTTins.

18. DROTTinn hann typtar mig ad vijsu, Enn hann giefur mig ecke Daudanum.

19. Uppluked fyrer mier Dyrum Riettlætesins, so ad eg gange þar jnn, og DROttne Packer giore.

20. Þetta eru þær Dyr DROttins, þeir Riettferdugu munu þar jnn ganga.

21. Eg packa þier, þad þu lijtellæckader mig, og hiaalpar mier.

22. * Sa Steirnenn sem Uppbyggendur burtkasta, Hann er ordenn ad Hyrningar Steine. * Math. 21, 4. Marc. 12, 10. Luc. 20, 17. Giornb: Post: 4, 11. 1 Petr. 2, 17.

23. Það er skied af DROTTne, og er Undarlegt fyrer vorum Augum.

24. Þetta er sa Dagurenn hvorn DRottinn gierde, Laatum oss fagna, og vera glader a þeim hinum sama.

25. O DRottinn! hiaalpa þu, O DRottinn! laattu vel luckast.

26. *Lofadur sie sa sem ad kiemur j Nafne DROTTins, Vier blessum ydur, sem erud af Huse DROTTins. * Matth. 21, 9. Marc. 11, 9.

27. DROTTinn er Gud, sa ed oss upplyser, (b) Pryded Haatijdena med Ung-Vidar Greinum, allt ad Hornum Allaresins.

b) Hebr. Binded Haatijdarinnar Offur med Bande.

28. Þu ert minn Gud, og eg packa þier Minn Gud, eg vil prijsa þig.

29. Packed þier DRottne, þviad hann er goodur, og hans Miskunseme varer eylijflegana.

# CXIX. Psalmur.

Gyllene Upphafs-Stafer Eins Christens Manns, er Innehallda (I) Bæner; (II) Yferveganer; og (III) Lærdom um Freistingar.

I. Sæler eru þeir sem Flecklauser lifa, þeir ed ganga j Logmale DROTTins.

2. Sæler eru þeir sem hallda hans Vitnisburde, Hvorier ed leita hans af øllu Hiarta.

3. Þvi hvorier ed ganga a hans Vegum, þeir giora eckert Illt.

4. Þu hefur boded vandlega ad hallda þijn Bodord.

5. GUd giæfe þad Lijferne mitt hiellde ut af allre Alvøru þijn Riettinde.

6. Nær ed eg lijt alleinasta a þijn Bodord Þa verd eg ecke til Skammar.

7. Eg packa þier ut af riettu Hiarta, Þad þu kienner mier Riettenn þijns Riettlætis.

8. Þinn Riett vil eg hallda, yfergief þu mig alldrei.

II. 9. Hvornenn fær Æskumadurenn sinn Veg geinged ostraffanlega? Nær ed hann helldur sig epter þijnum Ordum.

10. Eg

10. Eg leita þijn af ollu Hiarta, Laat mig ecke villt fara fra þijnum Bodordum.

11. Eg bijhelld þijnu Orde j mijnu Hiarta, So ad eg syndgest ecke a mote þier.

12. Lofadur siertu DROTTINN! Kienn mier þijn Riettinde.

13. Medur mijnum Vorum vil eg frammteiia Oll Riettinde þijns Munns.

14. Eg gled mig af Veigenum þinna Vitnisburda, So sem yfer allskins Audæfum.

15. Eg tala þad hvad þu hefur boded, Og athuga þijna Vegu.

16. Til þinna Riettinda hef eg Lysting, Og forgleyme ecke þijnum Ordum.

III. 17. Giør þijnum Pion vel til, So eg life og hallde þitt Ord.

18. Opna þu mijn Augu, so ad eg siaae þa Furdanlegu Hlute j þijnu Logmaale.

19. Eg em eirn Giestur a Jordu, Fel ecke þijn Bodord fyrer mier.

20. Saala mijn er j sundur molud af Forleinging Epter þijnum Riettindum alla Tijma.

21. Þu straffar hina Dramblaatu, Bolvader sieu aller þeir sem burt villast fra þijnum Bodordum.

22. Burt snu þu fra mier Forsmaan og Fyrerlitning, þviad eg helld þijna Vitnisburde.

23. Hofdingiarner sitia þar eirnenn, og tala mote mier, Enn þinn Pioon talar ut af þijnum Riette.

24. Eg hefe Lysting til þinna Vitnisburda, Þeir eru mitt Raadaneyte.

IV. 25. Saala mijn hun liggur j Dupte, endurlijfga þu mig epter þijnu Orde.

26. Eg framm tel mijna Vegu, og þu bænheyrer mig, Kienn þu mier þijn Riettinde.

27. Undervijsa þu mier Veigenn þinna Bodorda, Þa mun eg segia ut af þijnum Daadsemdum.

28. Eg grem mig so, ad mitt Hiarta vanmegnast, stirk mig epter þijnu Orde.

29. Snu fra mier þeim Fals-Veige, Og unn mier þijns Logmaals.

30. Veigenn Sannleiksins hef eg utvaled, Þinn Riett sette eg fyrer mig.

31. Eg aahange þijnum Vitnisburdum, DROTTinn! laat mig ecke til Skammar verda.

32. Nær ed þu hugsvalar Hiarta mijnu, Þa hleyp eg Veigenn þinna Bodorda.

V. 33. Vijsa þu mier DROTTinn! Veigenn þinna Riettinda, So þad eg bijvare þau allt til Enda.

34. Undervijsa þu mier, so eg bevare þitt Logmaal, Og hallde þad af ollu Hiarta.

35. Leid þu mig a Veigenn þinna Bodorda, Þviad eg hefe Lysting þar til.

36. Hneig þu mitt Hiarta til þinna Vitnisburda, Og ecke til Fiaar-aagyrndar.

37. Fra-snu þu Augum mijnum, so ad þau lijte ecke epter Onytsamlegum Lærdome, Helldur endurlijfga þu mig a þijnum Vegum.

38. Laattu þinn (a) Pion þijn Bodord fastlega hallda fyrer þijn Ord, so ad eg ottest þig.

(a) Ebraice, Stadfest þu þijn Ord fyrer þijnum Pienara.

39. Snu þu fra mier þeirre Forsmaan er eg kvijde vid, Þviad þinn Riettur er Elskulegur.

40. Siaa þu, Eg gyrnest þijnar Bifalningar, Endurlijfga þu mig medur þijnu Riettlæte.

VI. 41. DROttinn! laattu mig fkie þijna Naad, Þitt Hiaalpræde, epter þijnu Orde.

42. So ad eg andsvara meige þeim ed mig lasta, þviad eg treyste uppa þitt Ord.

43. Og svipt ei j burt ur mijnum Munne Ordenu Sannleiksins, Þviad eg vona uppa þijn Riettinde.

44. Þitt Logmaal vil eg vardveita alla Tijma, um Alldur og ad eylijfu.

45. Og gladvær þa geing eg, Þviad eg leita þinna Bodorda.

46. Eg tala af þijnum Vitnisburdum fyrer Kongunum, Og skommunst mijn ecke.

47. Og hefe Lysting a þijnum Bodordum, Og þau eru mier kiær.

48. Og eg hef mijnar Hendur upp til þinna Bodorda, þau er mier eru kiær, Og tala um þinn Riett.

VII. 49. Minnstu (b) Pions þijns hiaa Orde þijnu, a hvort þu lietst mig treysta.

(b) Ebraice, Þeink uppa þad Ord til þijns Þienara.

50. Pad er mijn Huggun j minne Eymd, Pviad þitt Ord þad endurlijfgar mig.

51. Hiner Dramblaatu hæda ad mier, þo vijk eg ecke af þijnu Logmaale.

52. DROTTinn! nær ed þad kiemur mier j Hug, hvornenn þu hefur dæmt j fra Veralldarennar Upphafe, Pa hughreystunst eg.

53. Eg upptendrast a moote þeim Ogudlegu sem þitt Logmaal yfergiefa.

54. Pijn Riettinde eru mijn Saungvijsa j mijnu Huse.

55. DROttinn! a Naattarþele minnest eg þijns Nafns, og geyme ad þijnu Logmaale.

56. Pad er minn Fiesiodur, ad eg vardveite þijnar Bodaner.

VIII. 57. Eg hefe sagt, DROTTinn! þad skal mijn Erfd vera, ad eg geyme þijna Vegu.

58. Eg graatbæne af ollu Hiarta fyrer þijnu Auglite, Vertu mier Miskunsamur, epter þijnu Orde.

59. Eg hugleide mijna Vegu, Og sny mijnum Footum til þinna Vitnisburda.

60. Eg flyte mier, og forsooma mig ecke, Til ad hallda þijn Bodord.

61. Hoopur hinna Ogudlegu (c) ræner mig, enn eg forgleyme ecke þijnu Logmaale.

(c) Giaaid til ad eingenn ræne ydur. Col.2,8.

62. Um Mid-Nætted stend eg upp þier þacker ad giora, Fyrer Riettenn þijns Riettlætis.

63. Eg helld mig til þeirra sem þig ottast, Og þijn Bodord vardveita.

64. DROTTinn! Jordenn er full þinnar Miskunar, Kienn mier þijn Riettinde.

IX. 65. DROTTinn! þijnum Pion gi orer þu til gooda, epter Orde þijnu.

66. Kienn þu mier heilnæma Sidu, og (d) Vidurkienning, þviad eg true þijnum Bodordum.

(d) (Vidurkienning) Pad er, Giegnd.

67. Adur enn eg lijtellættur vard foor eg villt, Enn nu helld eg þijn Ord.

68. Pu ert Liufur og Goodgiarn, Kienn mier þijn Riettinde.

69. Hiner Dramblaatu kveikia upp Lygar um mig, Enn eg helld af ollu Hiarta þijn Bodord.

70. Peirra Hiarta er storked sem Mör, Enn eg hefe Lysting a þijnu Logmaale.

71. Pad er mier liuft, ad þu hefur lijtellættann mig, so ad eg lære þijn Riettinde.

72. Logmaaled þijns Munns er mier liufara helldur morg Pusund Stycke Gulls og Silfurs,

X. 73 Hond þijn hefur giort mig, og tilbued, Undervijsa mier, so ad eg lære þijn Bodord.

74. Peir sem ottast þig siaa mig, og gledia sig, Pviad eg vona a þijn Ord.

75. DROTTJNN! eg veit, þad þijner Domar eru rietter, og trulega þa lijtellætter þu mig.

76. Pijn Miskun hlytur mijn Huggun ad vera, Epter þvi sem þu hefur þijnum Pioon heited.

77. Laattu þijna Miskun koma yfer mig, so ad eg lifi, Pviad eg hefe Lysting til þijns Logmaals.

78. Oh! ad hiner Dramblaatu mættu til Skammar verda, þeir ed med Lygunum niþurþryckia mier, Enn eg tala af þijnum Bodordum.

79. Oh! ad þeir mættu hallda sig til mijn sem þig ottast, Og þeir ed þeckia þijna Vitnisburde.

80. Mitt Hiarta þad blijfe riett skickad, j þijnum Riettindum, So ad eg verde ecke til Skammar.

XI. 81. Saalu mijna forleinger epter þijnu Hiaalpræde, Eg vona uppa þijn Ord.

82. Mijn Augu þau langar epter þijnu Orde, Og segia, Hvenær munt þu hugsvala mier?

83. Þviad eg er lijka sem ein (e) Hud j Reyk, Þijnum Riettindum forgleyme eg ecke.

(e) (Hud) Þad er, J hvorium Menn bera Vidsmior, Vijn, Vatn, svo sem eiru Klæda-Seckur er.

84. Hvorsu leinge skal þinn Þioon bijda? Hvonær villtu laata Doom ganga um mijna Offsooknara.

85. Hiner Dramblaatu grafa mier Graser, þær sem ecke eru epter þijnu Logmaale.

86. Þijn Bodord eru ecke utann Sannleikur, Þeir offsækia mig med Lygum, Hiaalpa þu mier!

87. Ad mestu þa hafa þeir fyrerfared mier a Jordu, Enn eg yfergief ecke þijn Bodord.

88. Endurlijfga þu mig fyrer Miskunseme þijna, So ad eg vardveite Vitnisburde þijns Munns.

XII. 89. Ord þitt DROTTinn! blijfur æfinnlega, so vijdt sem Himenenn er.

90. Þinn Sannleikur varer um Alldur og Æfe, Þu tilbioost Jordena, og hun blijfur standande.

91. Þad sama blijfur epter þijnu Orde daglega, þviad aller Hluter hliota þier ad þiona.

92. Ef ad þitt Logmaal hefde ecke mijn Huggun vered, þa hefde eg farest j minne Eymd.

93. Þijnum Bifalningum vil eg alldrei gleyma, þviad þu endurnærer mig medur þeim.

94. Eg em þinn, hiaalpa þu mier, þviad eg leita Bifalninga þinna.

95. Hiner Ogudlegu sitia um mig, so ad þeir fyrerkome mier, Enn eg giæte ad þijnum Vitnisburdum.

96. Allra Hluta hefe eg sied eirn Enda, Enn þitt Bodord varer.

XIII. 97. Hvorsu eg elska þitt Logmaal so miog! Daglega ræde eg um þad.

98. Medur þijnu Bodorde gierer þu mig hyggnare enn mijner Oviner eru, þvi eylijflegana þa er þad minn Fiesioodur.

99. Eg er lærdare enn aller mijner Lærefedur, þviad þijner Vitnisburder eru mijn Ræda.

100. Eg em skinsamare enn Olldungarner, þviad eg helld þijnar Skipaner.

101. Eg varna mijnum Footum vid ollum vondum Veige, so eg vardveite þijn Ord.

102. Eg hneige ecke af þijnum Riette, þviad þu mentar mig.

103. Þitt Ord er mijnum Munne sætara enn Hunang.

104. Þitt Ord giorer mig Forsiaalann, þar fyrer hata eg alla falska Vegu.

XIV. 105. * Ord þitt er Lampe Foota minna, og Lioos a mijnum Vegum.

* 2 Petr: 1, 19.

106. Eg sver, og vil hallda þad, Ad eg vil hallda Riettinde þijns Riettlætis.

107. Nærsta em eg audmyktur, DROttinn! endurlijfga þu mig epter þijnu Orde.

108. Laattu þier þocknast DROTTinn! þad viliugt Offur mijns Munns, og kienn mier þijna Dooma.

109. Eg (f) ber mijna Saalu ætijd j mijnum Hondum, og eg forgleyme ecke þijnu Logmaale.

(f) Þad er, Eg hefe mitt Lijf falt.

110. Hiner Ogudlegu leggia fyrer mig Snorur, Enn eg villest ecke fra þijnum Bifalningum.

111. Þijner Vitnisburder eru mijn Eylijf Arfleifd, þviad þeir eru mijn Hiartans Unadsemd.

112. Eg hneige mitt Hiarta, til ad giora epter þijnum Riettindum alltjafnt og eylijflegana.

XV. 113. Eg hata (g) vankande Anda, Enn elska þitt Logmaal.

(g) Vankande Andar kallast hier þeir ostodugu Andar sem alltijd finna uppa, og taka sier fyrer Hendur nockud nytt, so sem Villumenn plaga ad giora.

114. Þu ert mijn Hlijf og Skiolldur, A þitt Ord þa vona eg.

115. Vijked fra mier þier Illskufuller, Mijns Guds Bodord vil eg hallda.

116. Vidhallt mier fyrer þitt Ord, so ad eg life, Og lꜳt mig ecke yfer Von minne til Skammar verda.

117. Stirk mig, so ad eg hressunst vid, þa vil eg alla Tijma mijna Lysting hafa a þijnum Riettindum.

118. Þu nidurtredur alla þa sem fra þijnum Riettlætingum villt fara, þviad þeirra Svik eru ecke utan Lygd.

119. Þu burt fleyger øllum Ogudlegum a Jordunne sem Gialle, þar fyrer elska eg þijna Vitnisburde.

120. Eg em hræddur fyrer þier, so ad mitt Holld þad skielfur, eg hrædunst fyrer þijnum Riette.

XVI. 121. Eg helld med Riettenum og Riettlætenu, Gief mig ecke þeim ofur sem mier vilia Ofrijke giora.

122. Forsvara þinn Þion, og hughreyst hann, so þeir hiner Dramblꜳtu giore mier øngvann Yfergang.

123. Mijn Augu þau forleinger epter þijnu Hiꜳlpræde, og epter Orde þijns Riettlætis.

124. Gior þu vid Þion þinn epter Miskun þinne, og kienn mier þinn Riett.

125. Eg em þinn Þion, leidriettu mig, so þad eg medkienne þijna Vitnesburde.

126. Tijme er til, þad DROTTinn giore þar ad, þeir hafa þitt Løgmꜳl j sundur slited.

127. Þar fyrer elska eg þijn Bodord, Framar enn Gull, og framar enn Rauda Gull

128. Þar fyrer helld eg greiduglega allar þijnar Skipaner, Allann Falslegann Veg hef eg ad Hatre.

XVII. 129. Þiner Vitnisburder eru furdanleger, þar fyrer helldur þa Sꜳla mijn.

130. Nær ed þitt Ord openberast, þa gledur þad, og giorer vijsa þa Einfølldu.

131. Eg lyk mijnum Munne upp, og gyrnest þinna Bodorda, þviad mig forleinger þar epter.

132. Snu þier til mijn, og vert mier Miskunsamur, Epter þvi sem þu ert vanur ad giora vidur þa sem þitt Nafn elska.

133. Lꜳt minn Gang Ostkeikulann vera j þijnum Ordum, Og lꜳt eingenn Ranginde drottna yfer mier.

134. Frelsa mig j fra ꜳseilne Mannanna, þa vil eg hallda þijnar Skipaner.

135. Lꜳttu Andlit þitt lysa yfer Þræle þijnum, og kienn mier þijn Riettinde.

136. Mijn Augu fliota j Vatne, af þvi ad þitt Løgmꜳl þad verdur ei hallded.

XVIII. 137. Riettlꜳtur ert þu DROttinn! og þitt Ord er riett.

138. Þu hefur Vidnisburdena þijns Riettlætis, og Sannleikann, streingelega boded.

139. Eg var þvi nær daudur af Vandlætingu, af þvi þad mijner Motstødu-Menn (h) forgleyma þijnum Ordum.

(h) (Forgleyma) Þad er, Ecke alleinasta þvi gleymandi, helldur hyrda þeir þar so lijtid um, svo sem þar være alldrei neitt Guds Ord.

140. Þitt Ord er vel hreinsad, og þinn Þion hann elskar þad.

141. Eg em Lijtels-hꜳttar og fyrerlitenn, Enn eg gleyme þo ecke þijnum Bodordum.

142. Þitt Riettlæte er eitt eylijft Riettlæte, og þitt Løgmꜳl er Sannleikurenn.

143. Angist og Neyd hafa hitt uppa mig, enn eg hefe Lysting til þinna Bodorda.

144. Riettlæted þinna Vitnisburda er eylijflegt, Leidriettu mig, þa life eg.

XIX. 145. Eg kalla af øllu Hiarta, bænheyr þu mig, DROTTinn! ad eg hallde þinn Riett.

146. Eg kalla til þijn, hiꜳlpa þu mier, so ad eg hallde þijna Vitnisburde.

147. Aarla þa kiem eg og kalla, a þitt Ord vona eg.

148. Snemmendes vakna eg upp, so ad eg tale um þitt Ord.

149. Heyr þu Raust mijna epter Naad þinne, DROTTinn! Endurlijfga þu mig epter þijnum Riettindum.

150. Mijner Illskufuller Offsoknendur vilðu til við mig, og eru fiarlæger fra þijnu Logmaale.

151. DROTTinn! þu ert naalægur, og þijn Boðord eru ecke nema Sannleikurenn.

152. Aður vissa eg það fyrer, að þu hefðer þijna Vitnisburde eylijfleagana grundvallað.

XX. 153. Alijttu Eymð mijna, og frelsa mig, hiaalpa mier ut, þviað eg forgleyme ecke þijnu Logmaale.

154. Frammfilg þu Maalefne mijnu, og frelsa mig, Endurlijfga þu mig fyrer þitt Orð.

155. Fiarlægt er Hiaalpræðe þeim Oguðlegu, þviað þeir akta ecke þijn Riettinde.

156. DROTTinn! þijn Miskunseme er Mikel, Lijfga þu mig epter Riettindum þijnum.

157. Mijner Offsoknarar og Mootstoðu-Menn eru marger, Enn eg vijk ecke af þijnum Vitnisburdum.

158. Eg sie þa Forsmaanara, og það angrar mig, að þeir hallda ecke þijn Orð.

159. Siaa þu, Eg elska þijn Boðorð, DROTTinn! Endurlijfga þu mig epter Miskunseme þinne.

160. Þitt Orð er ecke annað enn Sannleikur, Allur Riettur þinnar Riettlætingar varer eylijflega.

XXI. 161. Hofdingiarner Offsækia mig fyrer ongva Sok, og mitt Hiarta er oottasleigeð fyrer þijnum Orðum.

162. Eg gleð mig yfer þijnu Orðe, so sem sa eð mikeð Herfaang fær.

163. (i) Lygenne er eg reidur og hefe Andstyggð þar a, Enn þitt Logmaal elska eg.

(i) (Lygenne) Það er, Hræsnurum og Uaderhygginn Monnum.

164. Siosinnum a Deigenum sagda eg þier Lof, fyrer Saker Riettlætis þinna Doma.

165. Mikenn Frid hafa þeir sem þitt Logmaal elska, og þeir munu ecke (k) rasa.

(k) (Rasa) Það er, Þeir skulu ecke villt fara, edur fyrer þeim mistakast, og hvorke fra snwast fyrer Magt nie Svik.

166. DROTTinn! eg vænte þijns Hiaalpræðis, og giøre epter þijnum Boðorðum.

167. Saala mijn varðveiter þijna Vitnisburde, og elskar þa mikelega.

168. Eg helld þijn Boðorð og þijna Vitnisburde, þviað aller mijner Veiger eru fyrer þier.

XXII. 169. DROTTinn! Laattu mijna Klogun koma fyrer þig, Leidriettu mig epter Orðe þijnu.

170. Laattu mijna Grætbeidne koma fyrer þig, Frelsa þu mig epter Orðe þijnu.

171. Mijnar Varer skulu Lof syngia, þa eð þu kienner mier þinn Riett.

172. Mijn Tunga skal sijna Ræðu hafa um þitt Orð, þviað oll þijn Boðorð eru riett.

173. Þijna Hønd laattu mier Hiaastoð veita, þviað eg hefe þijn Boðorð utvaleð.

174. DROTTinn! mig forleinger epter þijnu Hiaalpræðe, og eg hefe Lysting a þijnu Logmaale.

175. Saalu mijna laattu lifa, so að hun lofe þig, og þijn Riettinde hiaalpe mier.

176. Eg em svo sem (l) villtur og fortapaður Sauður, Leita þu að þijnum Þion, þviað eg forgleyme ecke þijnum Boðorðum!

(l) (Villtur) Eingenn aalijtur edur hefur Umhyggiu fyrer mier.

## CXX. Psalmur.

Bæn i mote Fals Kennendum og Rogs-Monnum.
Saungur j Haa-Koornum.

Eg kalla til DROttins j minne Neyð, Og hann bænheyrer mig.

2. DROTTinn! frelsa þu mijna Saalu j fra þeim Lygemunnum, Og j fra þeim Folsku Tungum.

3. Hvad kann þier su falskleg Tunga ad giora? Og hvoriu fær hun til Vegar komed?

4. Hun er so sem hvaßt Skeyte hins Sterka, lijka sem Elldur j einum (a) Eineberia Vide..

(a) Elldur j Eineberia Vidnum kolknar sliott, og logar miog, Þvi þad Trie er feitt, og er þvi Elldnæmt, So kolknar og Villu-Lærdomur upp med storre Magt, og brennur nærsta giarnau.

5. Vei mier! þad eg em utlendur a medal Mesech, Eg hlyt ad byggia medal Tialldbuda Kedar.

6. Pad verdur Sœlu minne langt ad bua hioa þeim sem Fridenn hata.

7. Eg helld Fridenn, enn nær eg tala, þa hefia þeir upp Strijd.

## CXXI. Psalmur.

A Gud alleina ega Menn ad trua og vona.

Saungur j Hœa-Koornum.

Min Augu hef eg upp til Fiallanna, af hvorium mier kiemur Hioalpenn.

2. Mijn Hioalp kiemur fra DROttne, Þeim sem giort hefur Himen og Jord.

3. Pinn Foot mun hann ei skeika lœta, Og sa ed þig vardveiter, hann sefur ecke.

4. Sioa þu, Sa hvor ed vardveiter Jsrael, Hann sefur ecke, og ei syfiar hann.

5. DROTTinn hann vardveiter þig, DROttinn er þinn Skugge yfer þinne Hægre Hende.

6. So ad Soolenn brenne ecke þig a Dagenn, Eige helldur Tungled a Noattar-þelenu.

7. DROttinn hann vardveite þig fyrer ollu Illu, Hann vardveite þijna Sœlu.

8. DROTTJNN hann vardveite þijna Utgongu og Inngongu, Nu hiedan j fra og ad eylijfu!

## CXXII. Psalmur.

(I) Um Jerusalems Helge; og (II) hennar Vegsemd og ægiæte.

Saungur Davids j Hœa-Kornum.

I. Af þvi þa gled eg mig, þad til mijn er sagt, Ad vier skulum jnnganga j (a) Hus DROttins.

a) Þar Guds Ord heyrest og kienest, Þar byr Gud, og þar er Guds Hus, af slijku er vel verdugt ad glediast.

2. Og þad vorer Fætur munu standa J þijnum Portum Jerusalem!

II. 3. Jerusalem er uppbiggd, þad hun sie ein Borg, þar ed Menn eiga til samans ad koma.

4. Þar ed Kinkvijslernar skulu uppganga, Sem ad er, Kinkvijsler DROTTins, til ad predika Jsraels Folke, til ad þacka Nafnenu DROTTJNS.

5. Þviad þar eru tilsetter Stolarner til Domsins, Stolarner Hussens Davids.

6. Osked Jerusalem Luckn, þeim gange vel sem elska þig.

7. Fridur þa sie hid jnnra, jnnan þinna Murveggia, Og Lucka j þijnum Hollum.

8. Fyrer minna Brædra og Vina Saker, Vil eg þier (b) Fridarens oosta.

(b) Ad þier meige vel ganga.

9. Fyrer Hussens Saker DROTTins Guds vors, Vil eg leita þijns besta.

## CXXIII. Psalmur.

Flotte Gudhræddra til Drottens, og Hæle hioa Honum.

Saungur j Hœa-Koornum.

Til þijn upphef eg mijn Augu, þu sem situr a Himnum.

2. Sioa þu, lijka so sem þad Augunn Pienaranna horfa uppa Hendur sinna Loanar Drottna, So sem þad Augunn Pionustukvinnunnar uppa Hendur sinnar Matmodur, Lijka so horfa vor Augu uppa DROTTinn Gud vorn, þangad til hann miskunar oss.

3. Vertu oss miskunsamur DROTTinn! vertu

vertu oss miskunsamur, þviad vier erum miøg fuller Forocktunar.

4. Hardla miøg eru Sæler vorar fullar ut af Spotte Drambsamra, Og Fyrerlitningu Dramblaatra.

## CXXIV. Psalmur.

Þackargiørd til Guds fyrer Hiaalp i Neydenne.

Saungur Davids j Haa-Koornum.

Ef DROTTenn være ecke hiaa oss, þa munde Israel segia.

2. Ef DROTTinn være ecke hiaa oss, Nær ed Mennerner setia sig upp mote oss.

3. Þa uppsvelgdu þeir oss lifande, Nær þeirra Reide gremst yfer oss.

4. Þa hefde Vatned dreckt oss, Straumarner geingu upp yfer vora Sæl.

5. Þa hefde Votnenn geinged of haatt yfer vorar Sæler.

6. Lofadur sie DROTTinn, þad hann giefur oss ecke til Veide-Braadar j þeirra Tennur.

7. Sæla vor er burt sloppenn, lijka sem Fugl ut af Veidemannsins Snoru, Snarann er sundur slitenn, og vier j burt leyster.

8. Vor Hiaalp stendur j Nafne DROTTins, þess sem giort hefur Himen og Jord.

## CXXV. Psalmur.

Vonenn til Drottins verdur alldrege til Smaanar.

Saungur j Haa-Kornum.

Hvorier ed treysta a DROTTinn þeir munu ecke falla, helldur eylijflegana blijfa, lijka sem Fialled Zion.

2. Kringum Jerusalem eru Fioll, Og DROTTinn er j kringum sitt Folk, nu hiedan j fra ad eylijfu.

3. Þviad Rijkis Spijra hinna Ogudlegu, mun ecke blijfa yfer Flockunum Riettferdugra, So þad hiner Riettlaatu utriette ecke sijna Hond til Ranglætesins.

4. DROTTinn! gior gott þeim goodu og froomu Hiørtum.

5. Enn hiner sem fra hverfa a sijna bogna Vegu, þa somu mun DROTTinn burtdrijfa med Illgiørda-Monnum, Enn Fridur sie yfer Israel.

## CXXVI. Psalmur.

Hørmungar Guds Barna snuast um sijder i Glede.

Saungur j Haa-Koornum.

Þegar ed DROTTinn leyser hina Herteknu Zions, þa munum vier verda so sem þeir ed (a) dreymer.

(a) (Dreymer) Þad er, Sa Føgnudur mun vera so stoor, ad vier kaaum þvi varla truad, Og oss mun þykia so sem hefdum vier þad j Svefne sied, og þad være ecke satt.

2. Þa mun vor Munnur fullur af Hlaatre, og vor Tunga full af Hroosun vera, þa mun og sagt vera a medal þeirra Heidnu, DROttinn hefur mikla Hlute vid þa giort.

3. DROTTinn hefur mikla Hlute vid oss giørt, Þar ut af erum vier glader.

4. DROTTinn snu þu voru Fangelse, Lijka sem ad þu þurkader Vatned j Sudrenu.

5. Þeir ed med Taarunum nidursaa munu med Føgnudenum uppskiera.

6. Þeir ganga ut og graata, og bera æ giætt Sæde, Og koma med Fagnade, og bera sijn Bindene.

## CXXVII. Psalmur.

Blessan Guds, er gefst (I) med Audæfum, og (II) med Børnum.

Saungur Salomonis j Haa-Koornum.

I. Ef DROTTinn bygger ecke Hused þa erfida þeir til einskis sem þad uppbyggia. Ef DROTTINN vardveiter ecke Borgena, þa vaker Vokumadurenn til Forgiefens.

2. Þad kiemur til einskis, ad þier snemma uppstanded, og þar epter aa leinge sitied, og eted ydar Braud med Hriggd, þviad hann giefur sijnum Aast-Vinum þad sofande.

II. 3. Sioa, Bornenn eru ein (a) Gaafa DROTTins, Og sa Lijkamans Avoxtur er ein Gaafa.

(a) (Gaafa) Pad er, Forgiefens er, ad hier ætled, ad hier med ydru Erfide kunned þetta ad utvega, Bornenn sialf, hvorra vegna hier Erfide hafed, eru ecke j ydar Vallde, helldur eru þau Gaafa Guds.

4. Lijka sem Skeyted j Oflugs Manns Hende, Eins tiugast þeir ungu Sveinar.

5. Sæll er sa sem sitt Koffur hefur fullt af þeim hinum sonu, Peir munu ecke til Skammar verda, nær ed þeir eiga vid sijna Ovine j Portunum.

## CXXVIII. Psalmur.

Blessan Gudhræddra Forelldra.

Saungur j Hoa-Koornum.

Sæll er sa sem ottast DROTTJNN, og geingur a hans Vegum.

2. Ut af Erfide Handa þinna muntu næra þig. Sæll ertu, þier geingur vel.

3. Pijn Husfreya mun vera so sem Avaxtarsamur Vijnvidur umhverfis þitt Hus, Pijn Born so sem Vidsmiors-Vidar Kvister j kringum þitt Matbord.

4. Sioa þu! so verdur sa Madur blessadur sem oottast DROTTinn.

5. DROTTJNN mun blessa þig af Zion, So ad þu sioaer Audlegdena Jerusalem alla þijna Lijfsdaga.

6. Og þu munt sioa þijn Barnaborn, Fridenn yfer Jsrael.

## CXXIX. Psalmur.

Psalmistenn talar (I) um Ovine Guds Kyrkiu (II) um Straff þeirra sem eru Oviner Guds Kyrkiu.

Saungur j Hoa-Koornum.

I. Optsinnis hafa þeir þreyngt ad mier, j fra Barnæsku minne, So sege Jsrael.

2. Optsinnis þa hafa þeir þreyngt ad mier, j fra Barnæsku minne, enn þeir hafa ecke yferbugad mig.

3. A mijnum Hrigg hafa þeir Ploogsmennerner plægt, og sijn Plogfør laung dreiged.

4. DROTTinn, Sa ed Riettlaatur er, hefur Reip hinna Ogudlegu j sundur hoggved.

II. 5. Oh ad þeir mættu til Skammar verda, og snuast um Hæl, Aller þeir sem Zion gramer eru!

6. Oh ad þeir hliote ad vera so sem Grased a Ræfrum uppe, Hvort ed visnar aadur enn þad upprætest!

7. Ut af hvoriu ad Slaattumadurenn fyller ecke sijna Hond, Og ecke helldur hann sitt Fang sem Bindenenn tilsamans bindur.

8. Og þeir ed framm hioa ganga munu eige segia, Blessun DROTTJns sie yfer ydur, vier blessum ydur j Nafne DROTTins.

## CXXX. Psalmur.

Ein Bæn (I) um Fyrergefning Syndanna, og (II) um Hugsvolun Samvitskunnar.

Saungur j Hoa-Koornum.

I. Burt ur Diupenu hroopa eg, DROTTinn! til þijn.

2. Heyr þu DROTTinn! mijna Rodd, Laattu þitt Eyra hyggia ad Roddu minnar Graatbeidne.

3. Ef ad þu DROTTinn! villt tilreikna Syndernar, DROTTinn! hvor maa þad standast?

4. Pviad j hioa þier er Fyrergiefningenn, So ad Menn ottest þig.

II. 5. Eg vænte DROTTins, mijn Saala hun bijdur, Og eg vona uppa hans Ord.

6. Mijn Saala hun bijdur DROTTins, J fra eirnre Morgun-Vokunne, og til aññarar.

7. Jsrael vone uppa DROTTinn, þviad hioa DROTTne er Miskunseminn, og hioa honum er gnogleg Endurlausn.

8. Og hann mun frelsa Jsrael, ut af ollum sijnum Syndum.

## CXXXI. Psalmur.

Speigell Audmyktarennar.

Saungur Davids j Hoakoornum.

DROT-

DROTTinn! mitt Hiarta er ecke Hofmoodugt, og mijn Augu eru ecke Stærelaat, Og eg geing ecke j mikelshattar Efnum, þeim mier eru Of-hoa.

2. Ef ad eg ecke sette og stillte Saalu mijna Pa verde mijn Saala afvanenn, lijka sem sa ed afvanenn er sinne Moodur.

3. Israel vone uppa DROttinn, Nu og allt hiedan j fra ad eylijfu.

## CXXXII. Psalmur.

Salomon bidur DRottenn, ad vardveita (I) Guds Pionustu-giörd, og (II) þa Veralldlegu Valld-Stiorn

Saungur j Hoa-Koornum.

I. Minnstu DROTTinn! a David, Og allt þad hann hefur lidid.

2. Hvor ed soor DROTTne, og trulofade hinum Vollduga Jacobs.

3. Eg vil ei j Tiallдbud mijns Heimelis ganga, og ei helldur mig uppleggia j minnar Sængar Hvijlu.

4. Mijn Augu vil eg ecke laata sofa, Og ecke helldur mijna Augnahvarma dotta laata.

5. Allt þangad til eg * finn fyrer DROttne eirn Stad, Til Ibyggingar þeim Megtuga Jacobs. * Giörnb: Post: 7, 46.

6. Sioa þu! vier heyrum ut af (a) honum j Ephrata, Vier hofum hann funded a Vollum Skoogarins.

(a) (Honum) Pad er, Af þeim sama Stad.

7. Vier vilium inngangа j hans Tialldbud, Og tilbidia fyrer hans Footskor.

8. DROTTinn! tak þig upp til þinnar Hvijlldar, Pu og Orkenn þinnar (b) Magtar.

(b) (Magtar) Pijns Herradæmis.

9. Pijna Kiennemenn laat sig jklædast med Riettvijsenne, og þijna Heilaga gledia sig.

10. Svipt ei j burt Rijkisstiornenne þijns hins Smurda, vegna þijns Pions Davids.

II. 11. DROttinn hann soor David eirn sannann Eid, fra honum mun hann ecke sier snua, *Avoxt þijns Lijfs vil Eg setia yfer þinn Stool. Giörnb: Post. 2, 30.

12. Ef ad þijn Born hallda minn Saattmaala, og mijna Vitnisburde, hvoria eg mun kienna þeim, Pa skulu og eirnenn þeirra Born sitia a þijnum Stoole æfenlega.

13. Pviad DROTTinn utvalde Zion, Og hefur Lysting þar j þeim Stad ad bua.

14. Petta er mijn Hvijlld æfenlega, Hier vil Eg byggia, þvi þad þocknast Mier vel.

15. Hennar Vister vil eg blessa, Og hennar Faatækum Nægd Brauds giefa.

16. Hennar Kiennemenn vil eg Hioalpræденu jklæda, Og hennar Heilager skulu gladværer vera.

17. Par j þeim Stad skal uppganga Horned Davids, Mijnum þeim hinum Smurda hef eg eitt Lioos tilbued.

18. Hans Ovine vil eg Forsmaanenne jklæda, Enn yfer honum skal blomgast hans (c) Corona.

(c) (Corona) Pad er, Kongs Rijked.

## CXXXIII. Psalmur.

Samlyнde er ysfred aagiætur Hlutur.

Saungur Davids j Hoakoornum.

Sioa þu! hvorsu aagiætt og elskulegt þad er, Ad Brædurner (a) bua hvor vid annann Samþyckelega.

(a) (Bua) Pad er, Nær ed þeir Rijku, Stooru, Heilögu, Vijsu, annast þa Faatæku, og Lijtelmotlegu, Syndugu, og Heimsku, og etc. Rom: 14, 13.

2. Lijka sem þad dyrmæta Balsamum er, hvort ed af Hofde Aarons ofann rennur, j allt hans Skegg, Pad sem ofann flytur a hans Klæde.

3. So sem ad Naattdoggenn su ed af Hermon ofann fellur a Fialled Zion, Pviad þar j þeim Stad fyrerheiter DROTTinn Blessanenne og Lijfenu, um Allder og ad eylijfu.

# CXXXIV. Psalmur.

Athafner og Sijslaner Andlegra.

Saungur j Hꝍa-Koornum.

Sioa! Lofed DROttinn aller Pionustumenn DROttins, þier sem standed a Nꝍattarþele j Huse DROttins.
2. Upphefied ydar Hendur j Helgedomenum, Og lofed DROttinn.
3. DROttinn blesse þig ut af Zion, Sa ed giort hefur Himen og Jord.

# CXXXV. Psalmur.

Packargiørd fyrer Margskonar Dꝍadsemdarfull Drottens Verk; Einnig auglyst Gydinga Folke.

Halleluja.

Lofed Nafned DROTTins, Lofed þier Pionustumenn DRottins!
2. Pier sem standed j Huse DRottins, j Forgarde Hussens Guds vors.
3. Lofed DROttinn, Þviad DROttinn er Goodgiarn, Lofsynged hans Nafne, þviad hann er lystelegur.
4. Þviad DROTTinn utvalde sier Jacob, Jsrael sier til Eigendoms.
5. Þviad eg veit þad, ad DROTTinn er Mikell, Og vor DROTTinn yfer øllum Gudum.
6. Allt hvad hann vill þad giører hann, A Himnum og Jordu, og Sionum, og j øllum Diupunum.
7. Hann sem Skijenn lætur uppganga af Jardarennar Enda, Hvør ed Elldingar giører med Regnenu, Sa ed Vindenn lætur koma ur leyndum Stødum.
8. Hann hvør ed sloo Frumburdena ꝍ Egyptalande, bæde Mannanna og so Fienadarins.
9. Og liet sijn Teikn og Stormerke koma yfer þig Egyptaland, yfer Pharao og alla hans Pionustu-Menn.
10. Hann Sa ed slo marga Lyde, og volldugа Konunga deydde.
11. Sihon Kongenn Ammoritarum, og Og Konungenn j Basan, og øll Kongarijkenn j Canaan.
12. Og gaf þeirra Land til Arfleifdar, til Arfleifdar sijnu Folke Jsrael.
13. Þitt Nafn DROTTinn! varer eylijflegana, DROTTinn! þijn Minning hun varer um Alldur og Æfe.
14. Þviad DROTTinn mun dæma sitt Folk, og sijnum Pionustu-Mønnum Miskunsamur verа.
15. Skurgodenn Heidenna Pioda eru Silfur og Gull, af Mannanna Høndum giord.
16. Þau hafa Munn og mæla ecke, þau hafa Augu og sioa ecke.
17. Pau hafa Eyru og heyra ecke, og eingenn Andardrꝍattur er j þeirra Munne.
18. Þeir ed þau giora eru eins lijka, aller þeir sem treysta a þau.
19. Hvsed Jsraels lofe DROTTinn, Lofed DROTTinn þier af Hwse Aarons.
20. Pier ut af Hwse Levi, Lofed DRottinn, þier sem oottest DROTTinn, Lofed DROTTinn!
21. Lofadur sie DROTTinn ut af Zion, Sa ed til Jerusalem bygger, Halleluja.

# CXXXVI. Psalmur.

Packargiørd fyrer adra Guds Dꝍadsemdarfulla Giørninga, Einnig auglysta Gydinga-Folke.

Þacked þier DROTTni, þvi hann er goodur, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.
2. Þacked Gude allra Guda, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.
3. Þacked DROTTne Allra Drottna, þviad hans Miskunseme varer eylijflega.
4. Hann ed Alleirn giører mikel Stoormerke, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.
5. Hann hvør ed Himenenn hefur giort so (a) skickanlega, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

(a) (Skickanliga) Þad er, Ad Himeneun og allar Stiør-

Stiornur hafa sinn vissann Gang, og vijkia þar ecke ut af.

6. Hann Sa ed Jordena hefur utbreidt yfer Votnunum, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

7. Hann Sa ed þau miklu Liosenn hefur giort, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

8. Soolena, Deigenum til Stiornunar, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

9. Tungled og Stiornurnar, Noottunne fyrer ad standa, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

10. Hann Sa ed Egyptaland sloo a þeirra Frumburdum, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

11. Og Israel ut þadan leidde, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

12. Fyrer Vollduga Hond og utriettann Armlegg, þviad hans Miskunseme varer eylijflega.

13 Hann Sa ed sundurskipteHafenuRauda j Tvo Hlute, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

14. Og liet Israel þar j giegnum ganga, þvi hans Miskunseme varer eylijflega.

15. Hann hvor ed steypte Pharaone og hans Herlide j Hafenu Rauda, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

16. Hann Sa ed sitt Foolk leidde j giegnum Eydemorkena, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

17. Sa ed nidursloo mikels hꝏttar Konunga, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

18. Og j Hel sloo Megtuga Konga, þvi hans Miskunseme varer eylijflegana.

19. Sihon hann Kongenn Ammoritanna, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

20. Og OG Kongenn til Basan, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

21. Og gaf þeirra Land til Arfleifdar, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

22. Til Arfleifdar sijnum Þion Israel, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

23. Þvi hann minntest a oss, þa ed vier vorum underþrickter, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

24. Og hann frelsade oss fra Ovinum vorum, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

25. Hann hvor ed Fædslu giefur ollu Hollde, þviad hans Miskunseme varer eylijflega.

26. Packed Gude af Himnum, þviad hans Miskunseme varer eylijflegana.

## CXXXVII. Psalmur.

Hriggdar-Saungur Gydinga Folks i þeirre Babylonisku Herleiding.

Vid Votnenn j Babylon satum vier og grietum, þa ed vier minntunst a Zion.

2. Vorar Horpur heingdum vier upp a Vijderenn, þann sem þar var.

3. Þviad þeir j þeim sama Stad skipudu oss ad syngia, þeir oss Fongudum hielldu, og gladværum ad vera j vorum Harmkvælingum, Kiære, synged oss eirn Lofsaung ut af Zion.

4. Hvornenn skylldum vier Lofsaung DROTTens syngia j annarlegu Lande?

5. Gleyme eg þier Jerusalem, þa verde minne Hægre Hende forgleymt.

6. Mijn Tunga lode mier vid Goma ef eg minnest þijn ecke, Ef ad eg læt ecke Jerusalem vera mijna hærstu Glede.

7. DROTTinn! minnstu a Born Edom, a Deige Jerusalem, þeir ed segia, Afmꝏed, afmꝏed, allt j hennar Grunn.

8. Þu hin brotna Dotter Babylon! vel verde þeim ed þier gielldur, so sem þu hefur vid oss giort.

9. Vel verde þeim sem taka þijn Smꝏ-Born, Og sundur brꝏka þau vid Stein.

## CXXXVIII. Psalmur.

Packargiord fyrer Almennelega Nꝏd Messiæ. Psalmur Davids.

Eg þacka Þier ut af ollu Hiarta, fyrer (a) Gudunum vil eg þier Lof syngia.

(a) (Gudunum) Þad er, Fyrer Einglunum, og Guds Børnum.

2. Eg vil bidia til þijns Heilaga Musteris, og þijnu Nafne Packer giora, fyrer þijna Miskunseme og Sannleika, þvi þitt Nafn hefur þu miklad framar enn alla Hlute, fyrer þitt Ord.

3. Nær ed eg oakalla þig, þa bænheyr þu mig, og gief Sialu minne Krapt mikenn.

4. DROTTinn! aller Kongar a Jordu þacka þier, þad þeir heyra Ordenn Munns þijns.

5. Og syngia a Vegum DROTTins, þad Dijrdenn DROTTins sie mikel.

6. Þviad DROTTinn hann er hoar, og lijtur a hid audvirdelega, og þecker hinn rijkelaata aaleingdar.

7. Þo ad eg reike j midre Harmkvælingunne þa endurlijfgar þu mig, og ut breider þijna Hond yfer Reide Ovina minna, og hiaalpar mier med þinne Hægre Hende.

8. DROttinn mun þar Ending aa giora minna vegna, DROTTinn! þijn Miskunseme er eylijfleg, Verkenn þinna Handa vilier þu ecke yfergiefa.

## CXXXIX. Psalmur.

David talar um Guds Alvitsku, og Almaattugu Fyrerhyggiu.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

DROTTinn! þu rannsakar mig, og þecker mig.

2. Hvort eg sit, edur stend upp, þa veitstu þad, þu formerker mijnar Hugrenningar aaleingdar.

3. Eg geing edur ligg, þa ertu j kringum mig, og sier alla mijna Vegu.

4. Þviad sioa þu! þar er eckert Ord a minne Tungu, þad þu, DROttinn! viter þad ei allt.

5. Þu kiemur þvi til Vegar hvad eg giore fyrr edur seirna, og helldur þinne Hende yfer mier.

6. Soddan Þecking er mier of furdanleg og of hoa, Eg fæ hana ecke skiniad.

7. Hvort skal eg fara fyrer þijnum Anda? Edur Hvort skal eg flya fyrer þijnu Auglite?

8. Fare eg upp j Himenenn þa ertu þar, Bygge eg mier Rvom j Helvijte, Sioa, þa ertu eirnenn þar.

9. Take eg Vænge Morgun-Rodans, og være vid þad Ytsta Sioafar-Haf,

10. Þa munde þar þo j þeim Stad þijn Hond leida mig, og þijn Hægre Hond hallda mier.

11. Sege eg, Mirkred moa hylia mig, þa hlytur eirnenn Noottenn Lioos ad vera j kringum mig.

12. Þvi Mirkurenn eru eirnenn ei Mirkur hioa þier, og Noottenn hun lyser sem Dagurenn, Mirkred er so sem Liosed.

13. Þviad mijn Nyru þa hefur þu j þijnu Vallde, þu varst yfer mier j Modurkvide.

14. Eg þacka þier þar fyrer, ad eg em Doadsamlega skapadur, Merkeleg þa eru þijn Verk, og þad sama þecker mijn Saala vel.

15. Mijn Bein voru þier og ecke okunnug, þa ad eg var j Leynum giordur, þa ad eg mindadur vard (a) under nidre j Jordunne.

(a) (Under) Þad er, innst j minnar Modur Lijfe.

16. Þijn Augu þau soau mig, þa ad eg enn ecke fullskapadur var, og aller (b) Dagar voru j þijna Book skrifader, þeir ed enn vera skylldu, og þeirra hinna sonu var þar þa eingenn.

(b) (Dagar) Þad er, Hvorsu leinge eg lifa skyllde, þad visser Þu aadur eg fieck Lijfed.

17. Enn hvorsu kostelegar ad eru fyrer mier, Gud! þijnar Hugsaner? Hvornenn er þeirra so mikell Fiollde?

18. Skyllde eg eiga ad telia þær, þa munde

de þeirra Fiollde fleyre vera enn Sandurenn, nær ad eg uppvakna em eg enn j hioa þier.

19. Æ Gud! ad þu jhelslær hina Ogudlegu, og þad hiner Bloodgiornu hlyte fra mier ad vijkia.

20. Þviad þeir tala um þig lastlega, og þijner Oviner hefia sig upp oan Sakar.

21. Eg hata þa, DRottinn! sem þig hata, Og mier misliJkar vid þa, þad þeir setia sig j giegn þier.

22. Eg hata þa af Alvoru riettre, Þar fyrer eru þeir mijner Oviner.

23. Rannsaka þu mig GUd! og reyn mitt Hiarta, Proofa þu mig, og reyn hvornenn ad eg meina þad.

24. Sioa þu hvort ad eg er oa vondum Veige, Og leid þu mig uppa þann eylijfa Veigenn.

## CXL. Psalmur.

Davids Bæn um Frelsun fra leynelegum og openberum Ovinum.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia.

2. Frelsa þu mig DROTTinn! j fra þeim Vondu Monnum, Vardveit mig fyrer þeim Illskufullum Lyd.

3. Þeir ed hugsa Illt j sijnum Hiortum, og daglega uppvekia Strijd.

4. Þeir hvetia sijnar Tungur sem Hogg-Ormar, * Nodru Eitur er under þeirra Vorum, Sela. * Rom. 3, 13.

5. Vardveit mig, DRottinn! fyrer Hende Ogudhræddra, Geym þu mijn fyrer þeim Illsku-Monnum, sem þeinkia minne Gaungu um ad vellta.

6. Hiner Drambloatu leggia Snorur fyrer mig, og breida ut Streinge mier til oanetiunar, Og egna upp Toalgilldrurnar fyrer mig a Veigenum, Sela.

7. Enn eg sege til DROTTins, Þu ert minn GUd, Merk þu DROTTinn! Rodd minnar Groatbeidne.

8. DROTTinn DROTTinn! mitt oflugt Hioalpræde, Þu hlijfer mijnu Hofde a Strijds-Tijmanum.

9. DROTTinn! Veit ecke Omilldum sijna Gyrnd, styrk ecke þeirra Mootþroan, þeir kynne ad forhefia sig þar ut af, Sela.

10. Ogiæfann, af hvorre ad Oviner mijner Roadgast um, falle hun yfer þeirra Hofud.

11. Hann mun (a) Elldingum ut ausa yfer þa, medur Ellde mun hann þa diupt j Jordena nidursloa, so ad þeir stande alldrei upp.

(a) Elldingar og Þrumur sloa þeim til Jardar, so sem j Hafenu Randa.

12. Illur-Munnur mun ongva Lucku hafa a Jordunne, Eirn Vondur Illsku-fullur Madur mun fordrifenn og utrekenn verda.

13. Þviad eg veit, þad DROTTinn mun Moalefne hins Foaroada, Og Riettarfare hins Foatæka frammfilgia.

14. Og þeir Riettferdugu munu þijnu Nafne Þacker giora, Og hiner froomu munu fyrer þijnu Auglite blijfa.

## CXLI. Psalmur.

Davids Bæn, ad Drotten vilie leida hann efter sijnu Guddomlega Roade.

Psalmur Davids.

DROTTinn! eg hroopa til þijn, flyttu þier til mijn, Hygg ad Raust minne nær ad eg oakalla þig.

2. Þad mijn Bæn mætte duga fyrer þier sem Reykelsis Offur, Minna Handa Upphafning lijka sem annad Kvolldtijma Offur.

3. DROTTinn vardveit minn Munn, Og geym mijnar Varer.

4. Hneig ecke mitt Hiarta uppa neitt vondt, til ad fremia Ogudlegt Athæfe medur Illvirkiunum, so ad eg ete ecke ut af þvi sem þeim þocknast.

5. Hinn Riettferduge sloae mig vinsamlega og straffe mig, Þad sama mun mier so giora gott sem Balsamum a mijnu Hofde, Þviad eg bid jduglega, ad þeir giore mier ongvann Skada.

6. Þeirra Lærefedur hlioote nidur ad hrynia

nia yfer eitt Biarg, So munu Menn þa minn Lærdom heyra, þad hann oastsamlegur sie.

7. Vor Bein þau eru j sundurdreifd allt til Helvijtis, So sem eirn sundur rijsur og umvellter Jordunne.

8. Hviad uppa þig DROTTinn DRottinn! lijta mijn Augu, Eg treyste a þig, utskufa ecke Soalu minne.

9. Vardveit mig fyrer þeirre Snorunne, sem þeir hafa lagt mier, Og fyrer Gilldrunne þeirra Illvirkianna.

10. Hiner Ogudlegu, hvor med odrum, innfalle j þeirra eiged Net, Enn eg med jafnade mun ganga þar framm hioa.

## CXLII. Psalmur.

Davids Bæn i storre Neyd og Angist.

Undervijsun Davids, til ad bidia, þa er hann var j Hellernum.

2. Medur minne Raust kalla eg til DRottins, Med Raust minne groatbæne eg DROTTINN.

3. Eg uthelle mijnu Moale fyrer honum, og kunngiöre fyrer honum mijna Neyd.

4. Nær ed minn Ande er j Anaud staddur, þa er Hier umhugad um mig, Heir leggia Snorur a Veigenn fyrer mig, þar ed eg uppa geing.

5. Skoda þu til Hægre Handar, og sioa, þar vill eingenn þeckia mig, Eg kann ecke ad umflya, eingenn er sa ed hyrder um mijna Soalu.

6. DROTTinn! til þijn kalla eg, og sege, Hu ert mijn Hioalpar Von, Mitt Hlutskipte j Lande þeirra Lifondu.

7. Hygg ad minne Kveinan, þviad eg verd nærsta þvingadur, Frelsa þu mig j fra mijnum Offoknurum, þviad þeir eru mier Ofmegtuger.

8. Leid mijna Soal ut af (a) Dyblyzunne, So ad eg þacke þijnu Nafne, Hiner Riettferdugu skulu safnast til mijn, nær ed þu giorer mier til gooda.

(a) Þad er, Af Neyd og Mofgange, j hværium eg em fangenn.

## CXLIII. Psalmur.

Davids Bæn (I) ad GUd vilie afslijra þvi hinu Vonda, og (II) veita hid Goda.

Psalmur Davids.

I. DROTTinn! heyr þu mijna Bæn, hygg ad minne Groatbeidne, fyrer þijns Sannleiks Saker, Bænheyr þu mig þijns Riettlætis vegna.

2. Og gack ecke j Doom vid Hræl þinn, Hviad fyrer þier er Eingenn Lifande Manna riettferdugur.

3. Hviad Ovinurenn offsæker Soalu mijna, og nidur slær mitt Lijf til Jardar, Hann leggur mig j Mirkred, so sem hina Daudu j Verolldenne.

4. Og minn Ande þreyngest j mier, Mitt Hiarta er fortært j mijnu Brioste.

5. Eg minnunst a hina fyrre Tijdena, eg tala um alla þijna Giorninga, og seige ut af Verkum þinna Handa.

6. Eg utbreide mijnar Hendur til þijn, Mijna Soal þyrster epter þier, so sem annad þurt Land, Sela.

7. DROTTinn! bænheyr þu mig broadlegana, minn Ande forgeingur, skyl ecke þijnu Andlite fyrer mier, so ad eg verde ecke lijkur þeim sem j Grofena fara.

II. 8. Loattu mig (a) snemma heyra þijna Noad, Hviad eg vona uppa þig, Gior þu mier kunnann þann Veigenn hvar ad eg skal uppa ganga, þviad mig forleinger epter þier.

(a) Þad er, Snarlega, j Tijma, eige seint, nie toomlega.

9. Frelsa þu mig minn GUd! ut af Ovinum mijnum, Til þijn fly eg.

10. Kienn þu mier ad giora epter þijnum Vilia, Hviad þu ert minn GUd, þinn Goodur Ande leide mig a sliettum Veige.

11. DROTtinn! endurlijfga þu mig, fyrer þijns Nafns Saker, Leid þu Soalu mijna ut af Neydenne, þijns Riettlætis vegna.

12. Og eydelegg Ovine mijna, þinnar Miskunar vegna, Og glata þeim ollum sem þreyngia ad minne Saalu, þviad eg em þinn Þræll.

## CXLIV. Psalmur.

(I) Þackargiørd þess miøg ægiæta Konungs Davids til Drottens; (II) Audmykt fyrer Drottne; (III) Bæn til Drottens fyrer sier og sijnum kiæru Undersaatum.

Psalmur Davids.

I. Lofadur sie DROTTinn mijn Hreyste, Sa ed lærer mijnar Hendur ad strijda, og mijna Knefa ad beriast.

2. Mijn Miskun og minn Kastale, mijn Hlijf og minn Frelsare, minn Skiolldur, uppa hvorn eg treyste, Sa ed þvingar Folk mitt under mig.

II. 3. DROTTinn! Hvad er Madurenn þess þad þu annest hann? Og Mannsins Barn ad þu virder hann so?

4. Er Madurenn ecke so sem eckert, Hans Tijme j burt lijdur, so sem annar Skugge.

III. 5. DRottinn! hneig þu þijna Himna, og stijg hier ofann, Kom þu vid Fiollenn, so ad upp af þeim rjuke.

6. Laat (a) Elldingar fliuga og j sundurdreif þeim, Skiot þijnum Geislum, og skielf þa.

(a) Þad er, Laat þijnar Reidarþrumur hlioda, og slaa til þeirra.

7. Send þu þijna Hond ofann af Hædenne, og leys mig, Og frelsa mig ut af þeim Stoor-Votnum, Af Hende þeirra (b) annarlegu Barna.

(b) (Annarligu) Þad er, þeir sem ei eru rietteleg Guds Børn j Trunne, helldur hafa alleinasta Nafn og Asynd.

8. Hvorra Lærdomur onytsamlegur er, Og þeirra Verk eru folsk.

9. Gud! þier vil eg syngia Nyann Lofsaung, Eg vil spila fyrer þier a Tiju Streingia Psalltara.

10. Þu sem Sigurinn giefur Konungunum, og frelsar þinn Þion David af Mordingia Sverde hins Illgiarna.

11. Leys mig eirnenn, og frelsa mig ut af Hende þeirra annarlegu Barna, Hvorra Lærdomur ad er eingenn Nytseme, og þeirra Verk eru falskleg.

12. (c) Þad vorer Syner vaxe j Ungdome sijnum, sem nyplantader Kvister, og vorar Dætur so sem utskorner Pilarar, lijka sem Haller.

(c) So tala og offa þeir Ogudhræddu, þeir ed ecke treysta a Gud, svo sem sa hinn Rijke j Evangelio, Luc. 12, 16.

13. Og ad vor Matar Hus sieu full, þau ed framm kunna ad giefa hvoria Nægt epter adra, so þad vorer Sauder frammleide Þusund, og Hundrad Þusund j vorum Þorpum.

14. Þad vorer Uxar frammkome ærnu Erfide, so þad eingenn Skade, eckert Tion, nie nockurt (d) Klogumaal sie a vorum Strætum.

(d) (Klogumaal) Ad eingenn Olucka, Soott, eda Plaaga kome yfer oss, helldur ad vier hofum alls Nægter, og lifum oottalauser med Glaum og Glede, med allskins Nægd.

15. Hepped er þad Foolk hvorin ed so geingur, Enn hepped er þad Folk, hvors Gud ad DROttinn er.

## CXLV. Psalmur.

David talar (I) um þad mikla Almætte DRottins; og (II) um hans Giædsku.

Davids Lof.

I. Eg vil þig upphefia, Minn Gud! Þu Konungur, og lofa þitt Nafn um Alldur og ad eylijfu.

2. Daglegana vil eg lofa þig, og prijsa þitt Nafn æ og ad eylijfu.

3. Mikell er DROTTinn, og miog loflegur, og hans Mikeleike er Oumrædelegur.

4. Barnabornenn munu prijsa þijn Verk, og segia af þijnu Vallde.

5. Eg vil tala um þijna ꜳgiætu og dæslegu Megt, og um þijnar Dꜳdsemder.

6. So ad Menn meige tala um þijn Dijrdleg Verk, og ad Menn frammtelie þijna Dijrd.

7. So þad Menn prijse þijna hina miklu Miſkun, og hroose þijnu Riettlæte.

II. 8. Nꜳdugur og Miſkunſamur er DROttinn, Þolennmoodur og Stoorrar Giædſku.

9. DROTTinn er øllum Nꜳdugur, og hann Miſkunar ſig yfer øll ſijn Verk.

10. Øll þijn Verk, DROTTinn! ſkulu þier þacka, og þijner Heilager þig lofa.

11. Og hrooſa Dijrdenne þijns Kongsrijkis, og af þijnu Magtar-Vellde ſegia.

12. So þad Mannanna Børnum verde þitt Magtar-Vellde kunnugt, Og ſu hin mikla Vegſemdar-Dijrd þijns Rijkis.

13. Þitt Rijke er eitt eylijft Rijke, og þijn Rijkisſtiornan varer um Alldur og Æfe.

14. DROTTinn hann ſtydur alla þa ſem falla, og reiſer upp þa alla ſem nidur eru ſlegner.

15. Allra Augu vona uppa þig, og þu giefur þeim þeirra Fædſlu a ſijnum Tijma.

16. Þu upplykur þinne Hende, og ſedur allt hvad lifer, med (a) Velþocknan.

(a) (Vel-Þocknan) Þad er, Þeir fꜳ nog, og verda ſadder, ſo ad þeim mꜳ þocknaſt, enn þo hinn Agiarne ville hafa meira.

17. DROTTinn er Riettferdugur j øllum ſijnum Vegum, og Heilagur j øllum ſijnum Verkum.

18. DROTTinn er øllum nꜳlægur þeim hann ꜳkalla, øllum þeim ſem hann med (b) Alvøru ꜳkalla.

(b) Ebraice, J Sannleika.

19. Hann giorer þad hvad hiner Gudhræddu gyrnaſt, og heyrer þeirra ꜳkall, og hiꜳlpar þeim.

20. DROTTinn vardveiter alla ſem hann elſka, og hann mun afmꜳ alla Ogudlega.

21. Minn Munnur ſkal DROTTins Lof mæla, og allt Holld loſe hans Heilaga Nafn, um Allder og Eylijflegana.

# CXLVI. Pſalmur.

Madur ꜳ ad treyſta Gude alleina, og Engum ødrum.

Halleluja.

Lofa þu DROTTenn Sꜳla mijn.

2. Eg vil DROTTinn lofa ſo leinge ſem eg life, og mijnum Gude Lof ſyngia a medan þad eg em hier.

3. Treyſted ei uppa Høfdingiana, þeir eru Menn, þeir kunna ecke ad hiꜳlpa.

4. (a) Þviad Mannſins Ande verdur ut þadann ad fara, og hann mun aptur ad Jordu verda, þa eru allar hans Rꜳdagiorder Onytar.

(a) Sa ſem treyſter uppa Mennena hønum bregdſt ſitt Aform, og þad verdur ad aungvu.

5. Sæll er ſa hvørs Hiꜳlp þad GUD Jacobs er, Hvørs Von ad ſtendur uppa DROTTinn hans GUD.

6. Hvør ed Himenenn, Jordena, Sioenn, og allt hvad þar er jnne, hefur giort, Hann ſa ed Tru helldur eylijflegana.

7. Hann ed Riettenn utvegar þeim ſem ofbellded lijdur, Hvør ed Fædſlu giefur hungrudum.

8. DROTTinn hann leyſer þa Fongudu, DROTTinn hann giefur Syn Blindum, DROTTinn rietter þa vid ſem nidurſlegner eru, DROTTenn elſkar þa Riettlꜳtu.

9. DROTTinn hann vardveiter hina Framande og Føderleyſingiana, Og vid Magt helldur Ekkiunum, og (b) aptur a Bak ſnyr Veigenum Ogudhræddra.

(b) (Aptur a Bak) Þad er, hann høndlar langtum ødrvijs vid þa.

10. DROTTenn er Kongur eylijflegana, þinn GUD, Zion! um Alldur og Æfe, Halleluja.

# CXLVII. Pſalmur.

Þacklæte fyrer Guds miklu Velgiørder vid allar Skepnur.

Lofed þier DROTTJNN, þviad vorn GUD

GUd ad losa þad er forkostulegur Hlutur, Soddan Lof er lystelegt og dæelegt.

2. DROTTinn hann uppbygger Jerusalem, Og hefur til samans hina utdrifnu j Jsrael.

3. Hann læknar sundurknosada j Hiortunum, Og bindur um þeirra Saarende.

4. Hann telur Stiornurnar, Og nefner þær allar med Nøfnum.

5. Vor DROTtenn er mikell, og hann hefur mikenn Krapt, Og er (a) O-yfergrijpanlegt hvørnenn Hann stioornar.

(a) Ebr. Þar er eingenn Tala a hans Skilninge.

6. DROTTinn veiter uppreisn hinum Faarcada, Og hrinder hinum Ogudlega allt j Grunn.

7. Synged hvør til annars DROTTne med Packargiord, Og losed vorn GUd med Horpum.

8. Hvør ed Himenenn hylur med Skijunum, Og giefur Regn a Jordena, Hann Sa ed lætur Grased vaxa a Fiollunum.

9. Hvør ed Fienadenum giefur sitt Fodur, þeim ungu Hrosnum sem til hans kalla.

10. Eige hefur hann Lyst a Stirkleik Hestsins, Nie helldur Pocknan a nockurs Manns Beinum.

11. DROTTinn hefur Pocknan a þeim sem hann oottast, sem vona a hans Miskunseme.

12. Prijsa þu Jerusalem DROTTinn! Losa þu Zion þinn GUd.

13. Þviad hann fastar giorer Grindernar þinna Portdyra, Og blessar þijn Born þar fyrer innann.

14. Hann veiter þijnum Landsaalfum Frid, Og sedur þig med þvi hinu besta Hveite.

15. Hann sender sijna Rædu a Jordena, Hans Ord hleypur snarlegana.

16. Hann giefur Snioenn so sem Ull, Hann dreifer Hrimfrostenu sem Osku.

17. Hann fleyger sijnum Js sem Munnbitum, Hvør fær stadest fyrer hans (b) Froste.

(b) (Froste) Þad er, Hann lætur slijkann Vetur og Frost koma, ad menn hliota ad hafa Elld, annars kann eingiun þad af ad bera.

18. Hann seger, þa brædnar þad nidur, Hann lætur sinn Vind blaasa, þa þidnar þad upp.

19. Hann kunngiorer Jacob sijn Ord, Jsrael sijna Sidu og Riettinde.

20. Slijkt giorer hann vid øngva Heidingia, nie lætur þa vita sijn Riettinde, Halleluja.

# CXLVIII. Psalmur.

Allar Skepnur skulu þacka Drottne, og losa hann.

Halleluja.

Losed (a) þier Himnarner DRottinn! Losed hann j Hædunum.

(a) Ebr. af Himnum.

2. Losed hann aller hans Einglar, Losed hann allur hans Her.

3. Losed hann Sool og Tungl, Losed hann allar lysande Stiornur.

4. Losed hann þier Himnarner alla vegana, Og Votnenn þau sem uppe eru yfer Himnenum.

5. Pau skulu losa Nafned DROTTins, þvi hann bydur, og þa verdur þad skapad.

6. Hann helldur þeim um Alldur og ad eylijfu, Hann nidur skickar þeim, so ad þau meiga ecke odruvijs ganga.

7. Losed DROTTinn (b) a Jordu, þier Hvalfiskar, og oll Diupenn.

(b) Ebr. Af Jordunne.

8. Elldur, Hagl, Snioor og Ude, Storm-Vindar, sem (c) hans Ord frammkvæmed.

(c) (Hans Ord) Pad er, Hvad hann vill.

9. Fiollenn og aller Haalsar, Frioffsom Trie, og aller Cedrus-Vider.

10. Dyrenn og allskins Fienadur, Skridkvikendenn og Fuglarner.

11. Pier Kongar a Jordunne, og allt Folked, Hosdingiarner, og aller Domendur a Jordu.

12. Yngesmennerner og Meyarnar, Gamler Menn med þeim Ungu

13. Sku-

13. Skulu lofa Nafned DROTTins,
Þviad hans Nafn alleinasta er hꜳtt, Hans
Lof geingur so vijdt ut sem Himen og Jørd er.
14. Og hann upphefur Horned sijns Folks,
Aller hans Heilager eiga hann ad lofa, Jsra-
els Børn, þad (d) Folked er hønum þionar,
Halleluja.

(d) Ebr. Sem hønum er nꜳlægt.

## CXLIX. Psalmur.

Þackargiørd til Drottens fyrer Evangelium og Messias.

Halleluja.

Synged Drottne Nyann Loffsaung! Sam-
kundann Heilagra skal hann lofa.
2. Jsrael gledie sig j hønum, sem hann
hefur giørt, Zions Børn vere gladvær yfer
sijnum Konunge.
3. Hans Nafn skulu þeir j Dansenum lo-
fa, Medur Bumbum og Horpum skulu þeir
hønum spila.
4. Þviad Drottinn hefur Þocknan a sijnu
Foolke, Hann hiꜳlpar hinum Fꜳrꜳda ꜳ-
giætlegana.
5. Hiner Heiløgu skulu glader vera, Og
vegsama og heidra j sijnum Hvijlu-Rumum.
6. Þeirra Munnur skal upphefia GUD, Og
skulu beitt Sverd sier j Høndum hafa.
7. So ad þeir meige Hefndena fremia med-
al Heidenna, Refsingena medal Folksins.
8. Þeirra Konunga ad binda med Kiedium,
Og þeirra Edalborna med Jꜳrnvidium.
9. So ad þeir giøre þeim þann Riett, hvar
af skrifad er, Soddan Dijrd munu aller
hans Heilager hafa, Halleluja.

## CL. Psalmur.

Aller Menn skula lofa Drottenn og þacka hønum.

Halleluja.

Lofed DROTTinn j hans Helgedome.
Lofed hann j Festingunne hans Magtar.
2. Lofed hann j sijnum Verkum, Lofed
hann j sinne mikellre Dijrd.
3. Lofed hann medur Basunum, Lofed
hann medur Psølltørum og Horpum.
4. Lofed hann medur Bumbum og Dans-
leikum, Lofed hann med Streingium og Pij-
pum.
5. Lofed hann med hlioodhvellum Cymba-
lis, Lofed hann med vel hliodande Cymbalis.
6. Allt hvad Andardrꜳtt hefur Lofe
DROTTinn, Halleluja!

Ender Psalltarans.

---

# Formꜳlenn yfer Ordskvida Bookena Salomonis.

Þriar Bækur eru utgeingnar under Nafne Salomonis. Hin Firsta er Proverbia, Bookenn Ordskvidanna, hvør ed heita mꜳ med riettu ein Book samsett af Goodum Verkum, þviad hann kienner þar jnne gott Lijferne framm ad færa, bæde fyrer Gude og Mønnum.

Þo einkanlega tekur hann sier fyrer Hendur þa goodu Ungdoms Æsku, leidande hana so Fødurlega til Guds Bodorda, med huggunarsømum Fyrerheitum, Hvørsu hardla vel ad vegna skule Riettferdugum Mønnum, og med Hegningar Hootunum, og hvad þunglega Vonder-Menn skulu straffader verda. Þviad Ungdomurenn er af sialfum sier framnlutur til alls Jlls. Þar med (so sem annad oforsookt Foolk er) skiniar hann ecke Klookskap, nie Vondsku Veralldarennar og Diøfulsins, og er langtum ofveikur jllum Epterdæmum og Hneykingum j moote ad standa, og gietur ecke styrt sier sialfur, helldur ef hønum verdur ei undervijsad, þa er hann fyrre Fordiarfadur og glatadur, enn hann sier sig j kring.

Þar fyrer er naudsynlegt, ad hann hafe Læremeistara og Stiornara, þeir ed hann ꜳminne, vidvare, typte og age, og jafnlega hallde hønum til Guds Otta og hans Bodorda, og ad standa j moote Diøflenum, Heimenum og Holldenu, So sem Salomon j þessare Book med allre Kostgiæfne og gnooglega giører, og

og samanhender sinn Lærdoom j Ordsh[illegible], til þess, ad hann þess audvelldlegar lærdur, og helldur j Minne halldenn verde. So ad sier hvor Madur sa sem hugsar fromur ad verda, mꜳ med riettu hallda þessa Book fyrer sijna daglega Handbook edur Bænabook, og lesa þar opt j, og sinn Lifnad þar inne umskygna.

Þviad annad hvort hlytur ad skie, ad Menn þole Fodursins Aga, ellegar hitt, Heingiarans Refsing, sem Forelldrarner plaga ad segia, þo þu slepper ur mijnum Hondum, þa sleppur þu ecke ur Hondum Bødulsins, og være gott, Menn jduglega undervijsudu þetta Ungdomenum, ad hann meige þess Ordulenn vera, ad hann verdur annadhvort ad þola Fodursins Aga, edur Bødulsins Sverd. Epter þvi sem Salomon ꜳvallt giører j þessare Book, hann hotar þeim ohlydnu Dauda, þvi þad vill ecke ødruvijs til ganga, Gud lætur ecke neitt jllt ohegnt, so sem Raun giefur Vitne, ad Vonder og Ohlydnger Skꜳlkar so imislega farast, og so med seinsta Bøblenum j Hendur koma, þegar þa sijdst varer, og þeir eru sem ugglausaster. Þessa alls eru auglioos Vitne og Merke, þeir Galgar, Hiool og Steglur sem standa fyrer utann allar Borger, vid Almennings Þioodbrauter, hvad Gud hefur þar nidur sett fyrer Veralldlega Valldstiornar Menn, þeim øllum til Skielfingar sem ecke vilia lꜳta sier med Guds Orde segiast, og Forelldrunum eru ohlydner.

Þar fyrer kallar Salomon j þessare Book alla þa heimska sem fyrerlijta Guds Bodord, Enn hyggna, þa sem hallda sier og haga epter Guds Bodordum, og ꜳhrærer þar med eige ad eins Ungdoomenn, hvorn hann sierdeiles sier fyrer Hendur til Kiennslu tekur, helldur allskonar Stietter, fra hinum Hæsta, allt til hins Lægsta. Þvi, lijka sem Æskann hefur sijna eigennlega Løstu, a moote Guds Bodorde, so hafa og allar adrar Stietter sijna, og eun verre enn Æskunnar Lester eru, so sem plagast ad segia, þess elldre þess verre, og eun so, Alldurenn stodar vid øngre Heimsku.

Og þo ecke være neitt annad jllt j Hꜳfum Stiettum, so sem ad er, Agyrne, Drambsemе, Hatur og Reide, so er þo þesse eirn Løsturenn noogu jllur, ad Menn vilia vera klooker og hyggner j þvi sem þeir eige ecke ad vera, og þad hvør Madur er fws ad giøra ødruvijs enn honum er boded, og giøra þad ecke sem honum er boded. So sem þa nær nockur stendur j Andlegre Stiett, so vill hann vera hyggenn og vel fallenn til Veralldlegrar Valldstioornar, og hier er eingenn Ende a hans Hyggendum. Þar j moot, sa sem til Veralldlegrar Valldstiornar er settur, honum verdur sitt eiged Høfud ofþraungt, fyrer saker hans yferfliotanlegrar Kunnꜳttu, hvørsu ad Andlegu Embætte sie styranda.

Med þvilijka heimska Menn eru øll Lønd, aller Stader, og øll Hws full, hvørier ad j þessare Book verda alvarlega avijtader, og hvør fyrer sig aminntur, ad hann ad sijnu Gaum giefe, og þad sem ad hønum bifalad er trulega og dyggelega giøre, og þar er eingenn Kraptur naudsynlegre enn sꜳ, ad vera hlydenn, og ad giæta þess sem honum er bifalad ad giøra, þad kallast hyggner Menn. Þeir sem eru ohlydner kallast Heimsker Menn, eirnenn þo þeir vilie hvorke Ohlydnger nie Heimsker kallast.

Aunnur Book Salomonis kallast Koheleth, hvøria ed vier køllum Predikun, og er þad ein Huggunar Book, so sem, þegar ad nockur vill epter Lærdome hinnar Firstu Bookar hlydenn vera, og sijna Bijfalning edur Embætte til vara taka, þa rijs Diøfullenn, Heimurenn, og vort eiged Holld þar so fast j giegn, ad Madurenn verdur mæddur, og honum leidest sijn Stiett, so ad hann jdrast þess alls sem hann uppbyriad hefur. Þviad ecke neitt vill so fyrer honum Frammgang hafa, sem hann giarnann villde, sijdan hefst þar Sorg og Ahyggia, Leidende, Mootmæle og Oþol, so ad sa Madur lætur fallast Hendur og Fætur, viliande þadan af eckert giøra. Þviad ef Diøfullenn gietur ecke frabægt Hlydnenne a Hægra Veg edur Hønd, med Forvitne og fyselegum Lystingum, þa vill hann forhindra hana uppa Vinstre Hønd, med Sorg og Mootgange.

So sem Salomon kienner nu j firstu Book Hlydnena, þvert j moote þeirre heimsku Kitlande Forvitne, so kienner hann j þessare Book ad blijfa j Hlydninne þolinmodur og stodugur, j aiegn Motgange og Freistne, og ætijd ad vænta og bijda med Fride og Føgnude þeirrar seinustu Stundar, og þad sem Mann fær ecke hallded nie umbreytt, þad lꜳte hann so vera og hiꜳlijda, Aller Hluter finnast vel j sinn Tijma.

Hin þridia Bookenn er eitt Lofkvæde, j hvøriu Salomon Gud lofar fyrer Hlydnena, so sem fyrer adra ꜳstgiøf Guds. Þviad þar sem Gud byr ecke med, og styrer siꜳlfur, þar er hvørke Hlydne nie Fridur j nockre Stiett, Enn þar sem ad er Hlydne og good Stiornan, þar bygger Gud, kyssande og fadmande sijna elskulega Brwde, med sijnu elskulegu Orde, þad er Koss hans Munns. So ad hvar sem j nockru Lande edur Hwse vel framm fer, epter Utvijsan þeirra beggia firstu Bookanna, so miked sem verda mꜳ, þar meiga Menn og syngia Þridiu Bookena, og giøra Gude Þacker, hvør ad ei hefur oss alleinasta slijkt kiennt, helldur og siꜳlfur þad giefed, ad þad er frammkvæmt orded.

# Ordskvider Salomonis.

## I. Capitule.

Fyrer Hvert Medal Hin Retta Speke fææst, og hindrest.

Þesser eru Ordskvider Salomonis, Israels Kongs, Sonar Davids.

2. Til ad nema Speke og Tyftan, Skilning,

3. Hyggende, Riettvijse, Riett og Einfalldlegleika.

4. Ad þeir Fáavijsu verde Vijser, og Ungmennenn skinsom og forsiaal.

5. Hvor Hyggenn er sa hlustar til og betrar sig, og sa sem er skinsamur lætur vid sig raada.

6. So hann skilie Ordskvidena, og þeirra Þydingar, Kienningar Vijsdoms-Manna, og þeirra Epterlijkingar.

7. Otte DROTTins er (a) Upphaf til ad læra, Hyrdulauser Menn forsmaa Vitsku og Tyftan.

(a) (Upphaf) Þad er, Hvor sem vill læra, sa hlytur first Gudhræddur ad vera, enn sa lijted skeyter um Gud, hann skeyter ei helldur Vijsdome, og þoler aungva Ogun, nie Umvondun.

8. Son minn! hlyd þu Aga Fodur þijns, og yfergief ecke Bod þinnar Moodur.

9. Þviad slijkt er þijnu Hofde fogur Pryde, og ein Kedia a þijnum Hoalse.

10. Son minn! þegar jller Skalkar locka þig, þa filg þu þeim ecke.

11. Nær þeir segia, Far þu med oss, vær vilium umsitia Blood, og stunda epter þeim Saklausu fyrer utan Ordsok.

12. Vier vilium gleypa þa lifande, so sem Helvijte, og þa enn Froomu, so sem þa ed nidurfara j Grofena.

13. Vier vilium finna mikel Audæfe, og fylla Hws vor med Herfang.

14. (b) Hættu til þess med oss, aller vær skulum eirn Siood hafa.

(b) Hebr. Þu skallt taka Hlutkeste med oss.

15. Son minn! gack þu ecke þann Veg med þeim, vara þu þinn Foot vid þeirra Stig.

16. Þviad þeirra * Fætur hlaupa til jlls, og flyta sier til Bloods Uthelliugar.

* Rom. 3, 15.

17. Þviad til einskis er (c) Neted ad leggia fyrer Augu Fuglanna.

(c) (Neted) Þad er einn Maalsháttur, og merker so miked, þad geingur til fyrer þeim so sem menn plaga ad segia, þad er til onytis ad leggia Netid, etc. þad er, þeim mun bregdast þeirra aasetningur, þeir munu tapast sialfer.

18. So og umsitia þeir sialfer sijn a medal hvor annars Blood, og eirn stundar epter annars Lijfe.

19. So giora aller Agiarner, ad hvor (d) tekur Lijfed fra odrum.

(d) Hebr. Hann mun taka Saal sinna Herra.

20. Spekenn kallar ute, og lætur til sijn heyra a Strætum.

21. Hun kallar j Portdyrum, medal Lydsins, hun talar sijnum Ordum j Borgenne.

22. Hvorsu leinge vilied þier hiner Faavijsu Faavijser vera, og þier sem erud Haadgiarner Lyst hafa til Haadungar? Og Hyrdulauser Lærdomenn hata?

23. Snwed ydur til minnar Stroffunar, Sioaed, Eg vil frammsegia ydur minn Anda, og mijn Ord ydur kunngiora.

24. Af því Eg þa kalla, og þier vilied ecke, Eg utriette mijna Hond, og eingenn giefur þar Gaum ad,

25. Og þier laated fara allt mitt Raad, og vilied ecke mijna Stroffun,

26. Þvi vil eg lijka hlæia j ydar aafelle, og spia ydur, þegar þad kiemur sem þier ottest.

27. Nær ed yfer ydur kiemur, sem annar Stormur, þad þier ottest, og ydar aafall, sem eitt Stormvedur, þegar Angist og Neyd yfer ydur kiemur.

28. Pa munu þeir kalla til mijn, enn eg mun ecke Svar giefa, þeir munu varla leita ad mier, og ecke finna.

29. Þar fyrer, ad þeir hötudu Kienningena, og Otta DROTTins villdu þeir ecke hafa.

30. Þeir villdu ecke mijn Raad, og lyttu allar mijnar Straffaner.

31. Þvi skulu þeir neyta af Avoxtum sinna Vega, og af sijnum Raadum sadder verda.

32. Þad sem þa enu Faavijsu (e) lyster deyder þa, og Lucka þeirra hyrdulausu tortijner þeim.

(e) Hebr. Afvik, þeir Daarlegu vijkia fra Guds Ords Raadum til lijkamlegra Hluta.

33. Enn hvor sa mier hlyder mun Ugglaus vera, og nog hafa, og ottast ongva Olucku.

## II. Capitule.

Madur skal leita þeirrar Sonnu Speke med Guds Fulltinge.

Son minn! vilier þu mijna Rædu medtaka, og mijnum Bodordum hiaa þier hallda,

2. Pa laat þu Eyra þitt ad Vijsdome gaum giefa, og hneig þu med Athuga Hiarta þitt þar til.

3. Þviad ef þu med Kostgiæfne þar epter kallar og þar um bidur,

4. Ef þu leitar epter honum, so sem Silfre, og grenslast þar epter, so sem epter Fiesiod,

5. Pa muntu skilia Otta DROTTins, og Þecking Guds finna.

6. Þviad DROttinn giefur Vitsku, og ut af hans Munne kiemur Speke, og Skilningur.

7. Hann (a) lætur vel vegna þeim Hreinskilnu, og verndar þa enu Froomu.

(a) Ebr. Hann geymer þad Rietta fyrer þa Hreinskilnu.

8. Og geymer þeirra sem Riett giora, og vardveiter Vegu sinna Heilagra.

9. Pa muntu skilia Riettlæted, og Riettenn, og Froomleika, og allann goodann Veg.

10. Ef ad Vitskann geingur þier til Hiarta, so ad þu giarnan lærer,

11. Pa munu hin godu Raadenn geyma þig, og Skinsemenn mun vardveita þig.

12. So þu komer ecke a Veigenn þeirra Vondu, edur a medal Vanartugra Maalskaps Manna.

13. Sem ad yfergiefa rietta Braut, og ganga mirkva Vegu.

14. Hvorier ad glediast illt ad giora, og eru fagnande i sijnum illum rangsnunum Athofnum.

15. Hvorier ed sijnum Vegum umbreyta, og filgia sijnum Afvegum.

16. Ad þu komer ecke til annars Manns Kvinnu, og þeirrar sem ecke er þijn, Hvor ed giefur fogur Ord.

17. Og fyrerlætur (b) Herra sijns Ungdoms, og gleymer Saattmaala sijns Guds.

(b) (Herra) Þad er, Hennar Eckta-Madur, sa sem hana fieck a ungum Alldre.

18. Þviad hennar Hus hneiger sig til Daudans, og hennar Gangur til Tapadra.

19. Aller þeir sem til hennar inn ganga koma ecke aptur, og hondla ecke Lijfsins Veg.

20. So ad þu ganger a goodum Veige, og siert a Stigum Riettferdugra.

21. Þviad Riettlaater munu i Landenu bua, og froomer þar inne blijfa.

22. Enn Ogudhrædder munu af Landenu upprætast, og þeir Foracktararner munu verda þar ut af afmaader.

## III. Capitule.

Aminning (I) til ad ottast Gud; (II) ad tala Speke; (III) ad giora God Verk.

I. Son minn! gleymdu ecke mijnu Logmaale, og geyme Hiarta þitt mijn Bodord.

2. Þviad þau munu fæ ra þier langa Lijfdaga, og Good aar og Frid.

3. Miskun og Truskapur mun þig ecke yfergiefa. Heingdu þau um Haals þier, og skrifa þau a Spiolld Hiarta þijns.

4. So muntu Hylle og (a) Klookinde finna, sem GUde og Monnum vel lijka.

(a) (Klookinde) Þu munt verda einn fijnn skinsamur Mann, allt skal þier fara vel, og sꝏ gooda Enda-lykt, hvad þu tekur þier fyrer.

5. Forlꝏt þig uppa DROttinn af ollu Hiarta, og treyst ecke uppa þitt Hyggiu-Vit.

6. Hugsa helldur til hans, j ollum þijnum Vegum, þa mun hann þig riett leida.

7. * Eige skalltu þykiast hyggenn vera, Ottast helldur DROttinn, og vijk fra Illu.

* Róm. 12, 16.

8. Pad mun þijnum Nafla heilnæmt vera, og þijn Bein hressa.

9. Heidra DROttinn af Audæfum þijnum, og af Frumvexte allra þinna Inntekta.

10. Pa munu fullar verda Kornhlodur þijnar, og þijnar Vijnpressur af Vijnberia-Log ut af flooa.

11. * Son minn! burt kasta ecke Tyftan DROttins, og vert ecke oþolugur vid hans Hyrting. *Ebr: 12, 5. Op: B: 3, 19.

12. Pviad hvorn þann sem DROttinn elskar, þann hyrter hann, og hefur a honum Pocknan, so sem Fader a Syne.

II. 13. Sæll er sa Madur er Vijsdomenn finnur, og sa Madur er Skinsemena odlast.

14. Pviad þad er betra ad hondla med hana enn med Silfur, og hennar Inntekt er betre enn Gull.

15. Hun er dyrmætare enn Gimsteinar, og allt hvad þu æskia kannt er ecke vid hana samjafnande.

16. Langer Lijfdagar eru a Hægre Hond henne, og Heidur og Audæfe a Vinstre Hond henne.

17. Hennar Veiger eru liufleger Veiger, og aller hennar Stijger eru Fridur.

18. Hun er Lijfsins Trie ollum þeim sem hondla hana, og þeir eru Sæler sem henne hallda.

19. Pviad fyrer Spekena hefur DROTTinn Jordena grunndvallad, og Himnana tilreidt fyrer sitt Raad.

20. Med hans (b) Vijsdome eru Undirdiupenn sundurgreind, og Skijenn med Dogg Driupande giord.

(b) (Vijsdome) Orde.

21. Son minn! Laattu ecke hana fra þijnum Augum vijkia, Pa muntu farsæll, og hyggenn verda.

22. Pad mun verda Lijf Saalu þinne, og Munnur þinn mun verda æstudlegur.

23. Pa muntu hættulaust ganga a þijnum Veige, so ad þinn Fotur mun ei æsteyta sig.

24. Legger þu þig, þa muntu ecke ottasleigenn verda, helldur sætlega sofa.

25. So þu þurfer ecke uggande ad vera fyrer voveiflegre Skielfingu, nie fyrer Ahlaupe Ogudlegra, þegar þad kiemur.

26. Pviad DROttinn er þitt Traust, hann geymer þinn Foot, so ad hann verde ecke fangenn.

III. 27. Afseg ecke hinum Naudstadda gott ad giora, ef þijn Hond hefur Efne til þad ad giora.

28. Seg ecke til Vinar þijns, Far j burt, og kom aptur, a Morgun skal eg giefa þier, ef þu hefur þad þo vel.

29. Uppþeink ecke Illt j moote Vin þijnum, sem byr hiꝏ þier uppa Tru.

30. Kijsa ecke vid nockurn Mann ꝏn Saskar, ef hann hefur ecke giort þier nockud Illt.

31. Ofunda ecke illskufullann Mann, og vel þier ongva af hans Vegum.

32. Pviad DRottinn hefur Audstyggd til þeirra frafollnu, og hiꝏ Froomum er hans Leyndar Raad.

33. Bolvan DROttins er j Huse Ogudrækenna, Enn Hus Riettlꝏtra mun blessad verda.

34. Ad Hꝏdgiornum mun hann hæda, Enn þeim Aumu mun hann Naadena giefa.

35. Peir hiner Vijsu munu Heidurenn erfa, Enn þa (c) Heimsker komast hꝏtt verda þeir þo til Skammar.

(c) (Heimsker) Pad eru hꝏdgiarner laussinnader Menn, sem hvorke skeyta Gude, nie hans Orde.

IV. Ca-

## IV. Capitule.

Menn ega ogso ad flya allt Tækefære til Syndarennar.

Heyred Syner mijner! Hirtingu Fodurs ydars, gaumgiæfed, ad þier læred og verded Forsicaler.

2. Þviad eg gief ydur eirn godann Lærdom, Forlaated ei mitt Logmaal.

3. Þviad eg var Sonur Fodur mijns, eitt blautt og einka (Barn) fyrer minne Modur.

4. Og hann kiennde mier, og sagde. Laattu þitt Hiarta medtaka mitt Ord, halltu mijn Bodord so muntu lifa.

5. Medtak þu Vijsdoom, medtak þu Skilning, gleym ecke, og vijk ecke af Rædu Munns mijns.

6. Yfergief hann ecke, so mun hann bevara þig, elska þu hann, so mun hann vardveita þig.

7. Þviad Upphaf Vitskunnar er þad, ef Madur heyrer hana giarnan, og hefur Hyggendenn kiærre enn oll Audæfe.

8. Vird hana mikels, og mun hun hefia þig, og giora þig heidarleganu, ef þu umfadmar hana.

9. Hun mun þitt Hofud fagurlega pryda, og (a) pryda þig med eirnre vænne Koronu.

(a) Ebr. Vernda.

10. Þvi heyr þu Son minn! og medtak mijn Ord, So munu aar þijn morg verda.

11. Eg vil leida þig a Vijsdoomsins Veg.

12. Eg vil leida þig a riettaGotu, so ad þa þu geingur veite þier eige mæded þijn Ganga, og ad þu meider þig ei þa þu hleypur.

13. Hondla þu Agann, laat ei þar af, geym þu hann, þviad hann er þitt Lijf.

14. Kom þu ecke a Stigu Ogudlegra, og gack þu ecke a Veige Vondra Manna.

15. Laattu hann fara, gack ecke þar a, vijktu fra honum, og gacktu framm hiaa.

16. Þviad þeir sofa ecke nema þeir hafe Illt giort, og þeir hvijlast ecke utan þeir hafe giort Skada.

17. Þviad þeir næra sig af Ogudlegu Braude, og drecka af Mootþroans Vijne.

18. Enn Stijgur Riettlaatra skijn sem annad Lioos, þad sem frammlijdur og lyser allt til Hæadegis.

19. Enn Vegur Ogudlegra er so sem Mirkur, og þeir vita ecke hvar þeir munu detta.

20. Son minn! gaumgiæf Ord mijn, og hneig Eyra þitt til minnar Rædu.

21. Laattu þau ecke fra þijnum Augum fara, hyrdtu þau i Hiarta þijnu.

22. Þviad þau eru þeirra Lijf sem þau finna, og Heilbrigde allra þeirra Lijkama.

23. Geym Hiarta þitt med allre Virkt, þviad þar ut af geingur Lijfed.

24. Burtskufa fra þier Rangsnunum Munne, og laattu Lostunarsamann Munn vera langt fra þier.

25. Augu þijn laattu riett framm fyrer sig siaa, og þijna Augnahvarma siaa riett framm undan þier.

26. Laattu þijnar (b) Fætur ganga beint framm, so geingur þu vissi.

(b) Ebr. Yferveg þijn Footspor, og aller þijner Veiger munu stadfestast.

27. Hvarla hvorke til Hægre Handar nie Vinstre, Snu þu þijnum Footum fra Illu.

## V. Capitule.

Salomon kenner og rædur oss ollum (I) ad flya Lauslæte og Saurlifnad; Og (II) ad vera Skijrlijfer.

I. Son minn! athuga mijna Speke, hneig Eyru þijn til minnar Kienningar.

2. So þu bijhallder goodu Raade, og Munnur þinn vite Greinarmun ad giora.

3. Þviad Skiækiunnar Varer eru sætar so sem Hunangs Seimur, og hennar Barke er miukare enn Vidsmior.

4. Enn sijdar meir beiskur sem Malurt, og beittur so sem eitt Tvieggiad Sverd.

5. Fætur hennar hlaupa nidur til Daudans, hennar Gangur nær til Helvijtis.

6. Eige geingur hun a Lijfsins Veige, Os-

 stodu-

stødugur er hennar Gangur, so hun veit eige hvørt hun geingur.

7. So hlyded mier nu, mijn Børn! og vijked ei fra Rædu mijns Munns.

8. Laat Vegu þijna langt fra henne vera, og nœlgast ecke hennar Husdyr.

9. Ad þu ecke annarlegum giefer þinn Heidur, og þeim hrædelegu þijn aar.

10. So ad ongver (a) annarleger sig sedie af þijnum Efnum, og þitt Erfide ecke sie j annars Huse.

(a) (Annarleger) Þviad Saurlijfis Menn eyda sijnu Gotse og Lijse med vondum Skœlkum, þeir ed þa epter aa ecke giefa þeim Munnbita, sem ad skiede þañ Fortapada Son, er j Gudspiallenu gietur, þa hann hafdi sooad ollu sijnu Gotse. Luc. 15, 15.

11. So ad þar epter a hliooter þu ad andvarpa, þegar þu hefur fortært þijnu Lijse og Gotse.

12. Og segia, Æ! þvi hatade eg so Tyftanena? og mitt Hiarta forsmaade Strøffunena?

13. Og eg hefe ecke hlydt Raustu minna Lærefedra, og ecke hneigt mitt Eyra til þeirra sem mier kienndu?

14. Eg er so nær komenn j alla Olucku fyrer ollum Lyd og ollu Folke.

II. 15. Drecktu Vatn ur þijnum Grofum, og fliootande Vatn ur þijnum Brunnum.

16. Laattu Brunna þijna utfliota, og þijna Vatnslæke a Strætinn.

17. Enn haf þu þa alleina, og eingenn annarlegur med þier.

18. Þinn Brunnur sie Blessadur, og fagna þu med Husfru þinnar Æsku.

19. Hun er so elskuleg sem ein (b) Hind, og þeckeleg sem Raadyr. Laattu hennar Elsku þig ætijd sedia, og skiemt þier jafnan med hennar aast.

(b) (Hind) Pad er talad epter almennilegum Ordskvid, og sagt so mikid, Vertu hiaa Konu þinne, og geym þu Eigur þijnar, so þu þeim ei eyder med Portkonum, helldur ødrum þar med hiaalper, þviad eingenn Hagur er a Jordu Elskulegre enn sa, nær Manne og Konu kiemur vel til samans.

20. Son minn! Hvar fyrer villtu Unun hafa af annarlegre, og annarlega ad fadma?

21. Þvi sierhvørs Manns Veiger eru strax fyrer DROTTne, og hann mæler jafnt allar þeirra Gongur.

22. Misgiørder hins Ogudlega munu hann hondla, og med Snoru sinna Synda mun hann halldenn verda.

23. Hann mun deya þar fyrer, ad hann vill sier ecke segiast laata, og saker sinnar mikellrar Heimsku mun honum ecke vel vegna.

## VI. Capitule.

Salomon aminner oss (I) til Raadvendnes i Verkum og Vidskiptum; (II) Til Kostgiæfne i Erfide; (III) Til Hlijdnes vid Foreldra; og (IV) Til Hreinlijfes.

I. Son minn! Ef þu geingur j Borgun fyrer Naunga þinn, og þu hefur bunded þijna Hond hiaa framande Manne,

2. Pa ertu bundenn med Tale Munns þijns, og fangenn med Rædu þijns Munns.

3. So giør þu þo minn Son! so, og frelsa þig, þviad þu ert komenn j Hendur þijnum Naunga, skunda þu, þreyng ad, og frammkny þinn Naunga.

4. Laat þijn Augu ecke sofa, nie Augabraar þijnar syfia.

5. Frelsa þig so sem eitt Raadyr fra Hendenne, og so sem eirn Fugl af Fuglafangarans Hende.

II. 6. Þu hinn Late, far þu til Maursins og umskygn hans Sidu, og lær.

7. Þo hvørke hafe hann Hofdingia, Hofudsmann, nie Herra,

8. Tilreider hann þo sitt Braud a Sumrenu, og safnar saman sinne Fædu a Kornskieru-Tijmanum.

9. Þu hinn Late, Hvørsu leinge liggur þu? Hvonær villt þu standa upp af þijnum Svefne?

10. Jaa, sofdu enn nu lijted, dotta þu enn nockud lijted, legg saman þijnar Hendur um litla stund, ad þu sofer.

11. So mun Faatæktenn fliott yfer þig koma

ma sem annar Gaungumadur, og Skorturenn sem eirn vopnadur Madur.

12. Eirn Orðadvandur Madur, eirn skadsamlegur Madur, hann geingur med (a) rangsnunum Munne.

(a) Hann talar af øngvum Setninge, lytur ecke riett til nockurs.

13. Bender med Augunum, teiknar med Footunum, vijsar med Fingrunum.

14. Stundar avallt illt, og rangsnyr því j sijnu Hiarta, og kiemur upp med Prætur

15. Þar fyrer mun hans Afelle ovarlega ad hønum koma, og hann mun hastarlega sundur marenn verda, so þar verdur eingenn Hiaalp.

16. Þessa Sex Hlute hatar DROttinn, og a Siøunda hefur hann Andstyggd.

17. Drambsom Augu, Falska Tungu, Hendur þær ed uthella saklausu Bloode.

18. Hiarta það sem umgeingst med vondum Hreckium, Fætur þa sem fliooter eru til Skada ad giøra.

19. Fals-Vott sem diarflega talar Lyge. Og hann sem Bræðra a medal reiser Sundurþycke.

III. 20. Son minn! geym þu Bodord Fødur þijns, og forlaat ecke þinnar Moodur Logmaal.

21. Bind þu þau saman ætijd uppa Hiarta þier, og heing þau um Hoals þier.

22. So ad þau leide þig þa þu geingur, og giæte þijn þa þu leggur þig nidur, og þau sieu þijn Ræda þa þu vaknar.

23. Þvi Bodorded er Skrid-Lioos, og Logmaaled er eitt Lioos, og Hirting Tyftunarennar er Lijfsins Vegur.

IV. 24. Uppa það þu verder vardveittur fra illre Konu, fyrer Miukre Tungu þeirrar enu annarlegu.

25. Gyrnstu ecke hennar Fegurd j þijnu Hiarta, og forgripp þig ecke a hennar Augnabraam.

26. Þvi Skiækiann svijkur af einum Braud, enn Eigennkona fangar það Edla Lijf.

27. Kann og nockur ad hallda Ellde j Skautenu so hann brenne ei sijn Klæde?

28. Hvornenn skal Madur nockur ganga a Ellds Gloodum so hans Fætur brenne ecke?

29. So geingur og þeim sem til sijns Naunga Konu geingur, Sa er eingenn ostraffadur sem hana snerter.

30. Það er einum Þioof ecke so mikel Skømm það hann stele, til ad sedia sijna Ond, ef hann er hungradur,

31. Og ef hann verdur fangenn, gielldur hann það siøfallt aptur, og leggur framm allt Gotsed j sijnu Hwse.

32. Enn sa sem drijger Hoordom med nockre Konu, hann er heimskur, hann fører sitt Lijf j Glotun.

33. Þar med hitter a hann Plaaga og Skømm, og hans Brijxle mun ei afmaad verda.

34. Þviad Mannsins Grimmd vandlæter og þirmer ecke a Hefndar-Tijmanum.

35. Og aalijtur øngvar Personur þær sem forlijke, og medtekur eckert, þott þu villder miked giefa.

## VII. Capitule.

Hier verdur Ein Hora utmaalud.

Son minn! vardveit mijna Rædu, og fel mitt Bodord hiaa þier.

2. Geym þu mitt Bodord, þa muntu lifa, og mitt Logmaal so sem Augnastein þinn.

3. Bind þu það a Fingur þijna, skrifa það a Spiolld Hiarta þijns.

4. Seig þu til Spekennar, Þu ert mijn Syster, og kalla Vitskuna þijna Vinkonu.

5. So þu vardveittur verder fyrer framande Konu, fyrer annarlegre, sem smiadrande Ord giefur.

6. Þviad af Glugganum j mijnu Hwse saa eg ut um Grindurnar,

7. Og eg saa a medal Heimskra, og vard var a medal Barnanna eins heimskufulls Ungmennis.

8. Hann

8. Hann gieck um Stræted hiaa eirnre Hyrningu, og gieck a Veigenum framm hiaa hennar Huse,

9. J Rockrenu, ad Kvollde dags, þegar ad naattade, og Mirkur var.

10. Og sia þu, þa mætte honum Kona j Hooru-Skarte, kyndug.

11. Galenn, og O-tamenn, so ad hennar Fætur kunnu ecke j hennar Hwse ad stad-næmast.

12. Nu er hun wte, nu er hun a Stræ-tunum, og umsitur j øllum Hyrningum.

13. Hun greip til hans, og kysste hann obliuglega, og sagde til hans.

14. J Dag hef eg Packlætis-Foorner fyrer mig bitalad fyrer mijn Heit.

15. Þvi er eg utgeingenn ad mæta þier, þijns Andlites snemma ad leita, og hefe þig funded.

16. Eg hefe prydda mijna Sæng fagur-lega med mislitum Tiolldum af Egyptalande.

17. Eg hefe dreift um mijna Sæng Myr-ru, Aloes og Kannel,

18. Kom, laatum ockur noog Bylijfe hafa til Morguns, og fremium lysteleg Fadm-Log.

19. Þviad Madurenn er ecke heima, hann er farenn fiarlægann Veg.

20. Hann hafde med sier Peninga-Pun-genn, hann kiemur heim first a Hoatijdar-degenum.

21. Hun skrafade hann upp med mørgum Ordum, og lockade hann med sijnum smiad-rande Munne.

22. Hann foor strax epter henne, sem þa eitt Naut er leidt til Slaatrunar-Becksins, og so sem til Joarnvidiunnar, þar Heimsker ver-da med straffader.

23. Þar til ad hun sundursneid hans Lifur med Pijlunne, so sem þa eirn Fugl flyter sier til Snørunnar, og veit ecke, ad þad kostar hans Lijf.

24. Þar fyrer heyred mier nu Børn mijn! og athuged Rædu Munns mijns.

25. Laat þitt Hiarta ecke a hennar Veg vijkia, laat þig ecke villa a hennar Gøtur.

26. Þvi hun hefur sært og fellt marga, og allskins Vollduger eru af henne drepner.

27. Hennar Hybyle eru Vegur til Helvij-tes, þar ad Menn nidurstijga j Daudans Herberge.

## VIII. Capitule.

Messias er Spekenn.

Hvort kallar Spekenn ecke? og Vitskann lætur til sijn heyra?

2. (a) Augliosslega a Veigenum, og a Strætunum stendur hun.

(a) Hebr: Uppa Hædenne hiaa Veigenum, hun sten-dur aa Stigum.

3. Vid Portenn hiaa Stadnum, þar sem Menn jnn ganga ad Dyronum, hroopar hun.

4. O þier Menn! Eg kalla til ydar, og hroopa til Lydsins.

5. Þier Heimsker! merked Vitskuna, og þier Heimskufuller! legged þad uppa Hiartad.

6. Heyred, þviad eg vil tala þad sem (b) Hofdinglegt er, og kienna þad sem Riett er.

(b) (Hofdinglegt) Hofdingiarner skulu giøra, tala, og hondla þad eitt sem Erligt er, so Menn meige þeirra Dæmum hrossa, og epterfilgia, og ecke so sem frammgiarner og grimmleger Tyrannar, edur Jotnar, etc.

7. Þviad Munnur minn skal Sannindе tala, og mijnar Varer skulu hata þad sem ogudlegt er.

8. Riettar eru allar Rædur mijns Munns, þar er ei neitt rangsnued j, nie falskt.

9. Allar eru þær beint framm þeim sem þær skilia, og riettar þeim sem þær vilia medtaka.

10. Medtaked mijna Ogun, helldur enn Silfur, og meted meira Lærdom enn kostu-legt Gull.

11. Þviad Vitskann er Perlum betre, og allt hvad æskia maa, kann ecke vid hana ad samjafnast.

12. Eg Vitskann by hioa Hyggendunum, og eg kann ad giefa good Raad.
13. Otte DROTTins hatar þad jlla, Dramblæte, Metnad, og jllann Veg, og eg er Ovin Rangsnuuum Munne.
14. Mitt er bæde Raad og Daad, eg hefe Hyggende og Magt.
15. Fyrer mig stiorna Kongarner, og setia Raadsherrarner Riettenn.
16. Fyrer mig rijkia Hofdingiarner, og aller Stiornarar a Jordu.
17. Eg elska þa sem mig elska, og þeir sem arla leita mijn finna mig.
18. Audæfe og Dijrd eru med mier, sannarlegt Gots og Riettlæte.
19. Betre er minn Avoxtur enn Gull og kostulegt Gull, og mijn Inntekt er betre enn utvaled Silfur.
20. Eg geing a riettum Veige, a Strætum Riettarins.
21. So ad eg vel roadstafe þeim mig elska, og giøre fulla þeirra Fiesioodu.
22. * DROTTinn hefur haft mig j Upphafe sinna Vega, fyrr enn hann nockud giorde var eg þar. * Joh. 1, 1.
23. Eg er jnnsett fra Eylijfd, fra Upphafe, fyrr enn Jordenn.
24. Pa Underdiupenn voru en ecke var eg allareidu buenn, þa Brunnarner uppspruttu enn ecke med Vatne.
25. Adur enn Fiollenn voru nidursockt, fyrr enn Hoalsarner, var eg tilreidd.
26. Hann hafde þa ecke enn skapad Jordena, og (c) þad a henne er, ei helldur Fiollenn Jardrijkes.

(c) Hebr. Goturnar.

27. Pegar hann tilreidde Himnana var eg þar, þa hann luckte Underdiuped med sinne Mæling.
28. Pa hann feste Skijenn hid efra, þa hann feste Diupsins Brunna.
29. Pa hann sette Sionum Takmark, og Votnunum, ad þau yfergeinge ecke sijna Bifalning.
30. * Pa hann lagde Jardarennar Grundvoll var eg (d) Verkmeistare hioa honum, og hafde daglega mijna Lyst, og liek mier fyrer honum alltijd. * Joh. 1, 3. Col. 1, 16.

(d) Ebr. So sem sa ed uppfoostrast.

31. Og eg liek a hans Jardrijke, og mijn Lyst er hioa Mannanna Bornum.
32. Par fyrer hlyded mier nu mijn Born! Sæler eru þeir sem mijna Vegu hallda.
33. Heyred Um-Vondunena, og verded hyggner, og loated hana ecke fra ydur.
34. Sæll er sa Madur sem mier hlyder, ad hann vake daglega vid mijnar Dyr, ad hann hallde Vord vid Dyrustafe minna Dyra.
35. Hvor mig finnur sa finnur Lijfed, og mun Goodvilld odlast af DROTTne.
36. Enn hvor hann syndgast vid mig sa meider Soal sijna, Aller þeir sem hata mig elska Daudann.

## IX. Capitule.

(I) Raad Meskiæ vid Mennena, sem (II) eru Syndarar.

I. 1. Vitskann biggde sier Hus, og hioo Sio Stolpa.
2. Sloatrade Fie sijnu, (a) og bar sitt Vijn upp, og bioo sitt Bord.

(a) Ebr. Blandade.

3. Og sende ut sijnar Amboatter ad bioda uppa Sal Borgarennar.
4. Hvor hann er bernskur kome hann hier, og til Heimskra sagde hun;
5. Komed og eted mitt Braud, og drecked Vijned þad eg j skeinke.
6. Yfergiefed bernsklegt Athæfe, þa munud þier lifa, og ganged a Skinsemennar Veige.
II. 7. Hvor hann agar (b) spielenn Mann hann hlytur Skomm uppa sig ad taka, Og sa hann vandar um vid Ogudrækenn verdur hæddur.

(b) (Spielinn) So kallar Salomon alla Forsmæendur og Motstandara Sannleiksins.

8. Avijta ecke spielenn Mann, hann hatar

þig, Avijta hyggenn Mann, og mun hann elska þig.

9. Gief þu vitrum Manne, og mun hann enn hyggnare verda, Kienn þu Riettlaatum, og mun hann Lærdomenn aa=auka.

10. Upphaf Vitskunnar er Otte DROttins, og Skinsemenn nemur þad sem Heilagt er.

11. Þviad fyrer mig munu marger verda Dagar þijner, og aar Lijfs þijns munu aukast.

12. Siertu vitur, so ertu þier vitur, Siertu Haadgiarn, muntu þad einsaman bera.

13. Þar er ein Heimskufull galenn Kona, full Mælge, og veit eckert.

14. Hun situr j sijnum Husdyrum a Stoole, haatt upp j Stadnum,

15. Ad bioda ollum þeim sem umfara, og riett ganga a sijnum Veige.

16. Sa sem bernskur er fare sa hingad, og til hins Heimska talar hun.

17. Ofrivals Votn eru sæt, og Leyndar=Braud eru lysteleg.

18. Enn hann veit ecke ad j þeim Stad er Daude, og hennar Giester j þui diupa Helvijte.

## Þesser eru Ordskvider Salomonis.

## X. Capitule.

Um Guds Otta og Gudlegt Athæfe.

Eirn vitur Sonur gledur sinn Fodur, enn Faavijs Sonur er Modur sinnar Hriggd.

2. Oriettferdugt Fie stodar ecke, Enn Riettlæte frelsar fra Dauda.

3. Ecke lætur DROTTinn Saal hins Riettlaata Hungur þola, Enn hann steyper (a) Fiedrætte Ogudlegra.

(a) Med hvorium þeir verda rijker med annara Manna Skada.

4. Ein lot Hond giorer Faatækt, enn ein þrifenn Hond giorer Audugann.

5. Hvor hann saman dregur a Sumrenu sa er hyggenn, Enn sa ed hann sefur um Kornskurdar=Tijmann (b) verdur ad Skomm.

(b) Skomm og Heidur kallar Salomon opt Faatækt og Rijkdom, af þvi, ad hvor hann er Rijkur hann hefur Æru.

6. Blessanenn er yfer Hofde hins Riettlaata, Enn Munn þeirra Ogudhræddu yfer felur (c) þeirra Illska.

(c) Hylur Illskann.

7. Minning Riettlaatra blijfur j Blessan, Enn Nafn Ogudrækenna funar.

8. Hvor hann er hyggenn af Hiarta sa medtekur Bodorded, Enn sa sem heimskann Munn hefur verdur sleigenn.

9. Hvor ed saklaus lifer hann lifer ohultur, Enn sa ed rangsnuenn er a sijnum Vegum mun opennber verda.

10. Hvor hann bender med Augunum uppreiser Mædu, Og sa ed Heimskann Munn hefur verdur sleigenn.

11. (d) Munnur hins Riettlaata er lifande Brunnur, Enn Munn Ogudlegra mun hans Þverud yfer falla.

(d) Ebr. Mun leyna Þverud.

12. Hatur kveiker upp Deilur, * Enn Kiærleikurenn hylur allar Misgiorder.

* 1 Pet. 4, 8.

13. J Vorum Viturs Manns finnst Vitska, Enn a Bak hins Heimska hæfer Vondur.

14. Hyggner Menn geyma Lærdomsins, enn Munnur hins Heimska er (e) Skielfingunne nalægur.

(e) Þad er, Haaska og Olucku.

15. Rijkdoomur Audugs Manns er hans sterkur Stadur, Enn hina Faatæku giorer Faatæktenn bliuga.

16. Riettlaatur Madur neyter sinna Audæfa til (f) Lijfsins, Enn Ogudrækenn Madur brukar sijnar Inntekter til Syndar.

(f) (Lijfsins) Þad er, Hann kann ad næra sig.

17. Ad hallda Ogunena er Vegur til Lijfsins, Enn sa sem Hyrtingena yfergiefur hann fer (g) villt.

(g) (Villt) Honum mun ecke vel vegna.

18. (h)

18. (h) Fals-Munnar dylia Hatur, og sa Bakmaalugur er hann er eirn Daare.

(h) (Fals-Munnar) Eirn hann aminner ecke sinn Brodur um hans Synder, Edur ef hann feller ha gledst hann har vid, Annar bakmæler, og giører ongvum Gagn har med.

19. Hvar ad er Margmælgenn har fer ecke framm aan Syndar, Enn hvør sijnar Varer hepter sa er forsiaall.

20. Tunga hins Riettlaata er kostulegt Silfur, Enn Ogudlegra Hiarta er eckert.

21. Varer hins Riettlaata fæda marga, Enn hiner Heimsku munu deya j sinne Faavitsku.

22. (i) Blessan DROTTins audgar fyrer utan Mædu.

(i) Hann forsorgar, og sendir had.

23. Eirn heimskur Madur mothroanlega høndlar, og spiast ad har ofan a, Enn sa Madur er hyggenn sem had gaumgiæfer.

24. Pad sem Ogudhrædddur Madur ottast mun yfer hann koma, Og had Riettlaater gyrnast mun heim giefast.

25. Ogudlegur Madur er so sem Stormur, sa sem Fliott yfergeingur, og ecke er framar, Enn riettlaatur Madur hellst ad eylijfu.

26. Sem (k) Ediked giører Tonnunum, og Reykurenn Augunum, svo giører latur Madur heim er hann senda.

(k) (Edik) Hvar ad ern lauskinnader Herrar og Embættis Menn, har sia Augunn ecke, og bijta eckt Tennurnar, had er, har lijdur under Lok bæde Age og Hirting. Jnf. 25, 13.

27. Otte DROttens eykur Dagana, Enn aar Ogudrækenna munu styttast.

28. Bid Riettlaatra mun ad Fognude verda, Enn Von Omilldra fyrerferst.

29. Vegur DROttins er Traass Riettlaats Manns, Eñ Illgiordamenn eru hrædder.

30. Riettlaatum Manne verdur alldrei kollvarpad, Enn Ogudleger Menn munu eige j Landenu blijfa.

31. Munnur hins Riettlaata færer Vijsdom, Enn Munnur rangsnuenna Manna verdur upprættur.

32. Varer Riettlaats Manns kienna Heilnæmelega Hlute, Enn Munnur Ogudlegra er rangsnuenn.

## XI. Capitule.

Rettsyne vid Naunganu i Høndlun og Framferde.

Rong Vog er Andstyggd DROTTne, Enn full Vigt er hønum hægeleg.

2. Hvar ad er Dramblæte har er og Fyrerlitning, Enn Vijsdomur er hiaa heim Audmiuku.

3. Sakleyse mun leida ha goodu, enn Illgyrne mun eydeleggia Foracktarana.

4. Audæfe stoda ecke a Deige Reidennar, Enn Riettlæte frelsar fra Dauda.

5. Riettlæte Goods Manns giører hans Veg sliettann, Enn hinn Ogudlege mun falla fyrer sitt Ogudlegt Athæfe.

6. Riettlæte goodra Manna mun ha frelsa, Enn Forsmaanarar munu fangner verda j sinne Illsku.

7. Nær Ogudlegur Madur deyr, so er toynd Von, Og Eptervæntan Ranglaatra verdur ad ongvo.

8. Sa Riettlaate verdur af Neydenne frelstur, Og sa hinn Ogudlege kiemur j hans Stad.

9. Fyrer Hræsnarans Munn verdur hans Naunge fordiarfadur, Enn had athuga Riettlaater Menn, og verda frelsader.

10. Ein Borg fagnar nær Riettlaatum geingur vel, Og hegar Ogudleger Menn fyrerfarast verda Menn glader.

11. Fyrer Blessan Riettferdugra uphefst eirn Stadur, Enn fyrer Munn Ogudlegra verdur hann nidurbrotenn.

12. Hvor sinn Naunga (a) smaanar sa er heimskur, Enn eirn vitur Madur stiller had.

(a) (Smaanar) Openberar giarnan annars Brek, enn vijs Madur hylur had, og afsakar.

13. Bakmaalugur Madur openberar had sem hann veit leynelegt, Enn sa sem med Trufostu Hiarta er hann leyner hvi.

14. Hvar eckert Roadaneyte er þar fellur Folked, Enn þar sem eru marger Roadgiafar þar fer vel framm.

15. Hver hann geingur j Borgun fyrer annann hann mun Skada hafa, Enn sa sem sier Vara tekur fyrer ad losa honum er ohætt.

16. Ein astudleg Kvinna helldur Heidrenum, Enn (b) Tyrannar hallda Audæfum.

(b) (Tyrannar) Ein Good Kona geymer sijna Æru, þo hun sie Faatæk, Ofrijkis Menn stunda epter Audæfum, og skeyta ecke um Æru.

17. Miskunsamur Madur giorer Lijfe sijnu nockud gott, Enn sa sem Omiskunsamur er, hreller eirnenn sitt Holld og Blood.

18. Ogudlegra Manna Erfide mun onytast, Enn hvor Riettlætenu sæer Pad er ofallvallt Gots.

19. Þviad Riettlæte stodar til Lijfsins, Enn epter ad sækia jllum Hlutum stodar til Daudans.

20. DROTTINN hefur andstyggd a rangsnunum Hiortum, Og a goodum hefur hann Þocknan.

21. Vondum stodar ecke þo þeir take saman ollum Hondum, Enn Sæde Riettloatra mun frelsad verda.

22. Frijd Kona aan Tucktar er sem Svijn med gullegt (c) Hofud-Band.

(c) Ebr. Eitt hangande Skart af Gulle j eins Svijns Nosum.

23. Osk Riettloatra hlytur þo vel ad luckast, Enn Von Ogudlegra verdur ad Olucku.

24. Eirn skipter ut, og hefur æ meira, Annar jnne helldur þar hann skyllde ecke, og verdur þo faatækur.

25. Su Saala sem nooglega blessar mun fitna, Og sa sem giorer (d) druckenn, mun og druckenn verda.

(d) (Druckenn) Pad er, Sa sem orlega veiter þeim mun orlega aptur giefast.

26. Hvor Korne jnne helldur þeim bolvar Foolked, Enn yfer þann sem pad selur kiemur Blessan.

27. Hvor hann leitar Gods þann (e) skiedur gott, Enn sa sem epter Olucku sæker, honum mun hun mæta.

(e) Ebr. Hann mun sækia epter Velþocknan.

28. Hvor hann treyster a Audæfe sijn hann mun underganga, Enn Riettloater munu blomgast sem eitt Lauf.

29. Hvor hann hreller sitt eigid Hus mun eignast (f) Vind j Arfskipte, og sa sem Heimskur er hlytur hyggins Manns Þræll ad vera.

(f) (Vind) Pad er, Fridnrinn nærer, Ofridurinn fortærer.

30. Avoxtur hins Riettloata er Lijfsins (g) Trie, Og (h) vitur Madur annast Foolked af Hiarta.

(g) (Trie) Hvad sem Riettloater Menn giora verdur hoorium Maune ad Gagne.

(h) Ebr. Og sa sem medtekur Saalernar hann er Hygginn.

31. * Ef ad (i) Riettloatur hlytur ad þola a Jordunne, Hvad miklu meir sa Ogudrækne og Synduge? * 1 Petr. 4, 18.

(i) (Riettloatur) Ef þeir godu, sem ollum vilia gott giora, verda opt hardlega plaagader, Hvornenn mun þa ganga vilia þeim Ogudhræddu?

# XII. Capitule.

Gudrækelegur, Sidprydeslegur, og Viturlegur Barna-Aage er Orsok mikels Gods i ollum Stettum.

Hvor sig lætur giarnann hirta mun hyggenn verda, Enn sa er Agalaus vill vera blijfur heimskur.

2. Hvor sa sem goodur er, hann fær Huggun af DROttne, Enn hyrdulaus Madur fordæmer sioalfann sig.

3. Ogudrækelegt Athæfe stodar Mannenum ecke, Enn Root Riettloatra mun blijfa.

4. Ein (a) þrifnadarsom Kona er sijns Manns Korona, Enn (b) Oþrifenn (Kona) er Rotnun j hans Beinum.

(a) Forstodusom.

(b) Oþrifinn, sem ecke er hagnadarsom, tekur sier eckert fyrer Hendur, eins og hun være Giestur j Husinu.

5. Hvad þeir Riettloatu roadleggia þad eru

eru obrigduler Hluter, Enn þad þeir Ogudlegu roadleggia þad dregur a Tœlar.

6. (c) Predikun Ogudhrœddra til Vegar kiemur Blods-Uthellingu, Enn Munnur þeirra hinna goodu frelsar.

(c) Ebr. Þad er Hondlan Ogudlegra ad umsitia Blod.

7. Ogudrœkner Menn verda kollvarpader, og verda ecke leingur, Enn Hus Riettlœtra stendur stødugt.

8. Hyggens Manns Road verdur priisad, Enn Hrecker verda til Skammar.

9. Hvor ecke er mikels umkomenn, og geymer siins, er betre enn sa sem mikell vill vera, og er Brauds vant.

10. Hinn Riettlœte aumkar sig yfer siinum Fienade, Enn Hiarta Ogudrœkens Manns er omiskunsamt.

11. Hvor a siinum (d) Akre arfidar mun Brauds Gnœgd hafa, Enn hvor hann geingur epter Naudsynialausu Efne sa er heimskur.

(d) (Siinum Akre) Hvor hann afsundar sitt j siinu Kalle og siinu Embætte, þvi annars mœ þad segia, ad Fiortan Handverk sieu Fimmtan Oluckur.

12. Lysting hins (e) Ogudlega er þad ad giøra Skada, enn Root Riettlœtra mun avøxt fœra.

(e) Ebr. Sa Oaudlege gyrntist Net þess Vonda.

13. Illur Madur verdur gripenn j siinum eigenn falsklegum Ordum, Enn Riettlœtur Madur umflyr Neydena.

14. Margt gott fœr eirn fyrer Munnsins Avøxt, og epter þvi sem Hendurnar hafa forþient verdur Mannenum endurgolldet.

15. Heimskum Manne lijka vel siiner Sider, Enn sa er Vitur sem hlyder goodu Roade.

16. Heimskur Madur syner fliott siina Reide, Enn hvor hann byrger (med sier) Hœdungena sa er forsiœll.

17. Hvor hann sannsøgull er hann talar friilega ut þad sem riett er, enn Liugvottur svijkur.

18. Hvor (f) oforsiœlega framm-fer stijngur sem eitt Sverd, Enn Tunga hyggenna Manna er heilnœm.

(f) (Oforsiœliga) Þeir sem øngvann Gaum giefa ad siinum Ordum, vid hvørn þeir eiga, j siinu Tiltale; þad skiedur i Domum, Predikunum, og ødrum Samkundum.

19. Sannsøgull Munnur stendur œfenlega stødugur, Enn Lygenn Tunga stendst ecke leinge vid.

20. Þeir svijkia sem illt Road leggia, enn þeir sem til Fridarins eggia giøra Fagnud.

21. Riettlœtann Mann mun ecke neitt Illt skie, enn Ogudleger munu fyllast af Olucku.

22. Lygner Munnar eru DROTTne Svivirding, Enn þeir sem trulega handtiera lijka honum vel.

23. Einn Vitur Madur leyner Vitskunne, enn Hiarta Dœranna uthropar siina Heimsku.

24. Idenn Hønd mun drottna, enn su sem løt er mun hlioota Skatt ad giallda.

25. Hriggd j Hiartanu kreinker, Enn eitt vingiarnlegt Ord gledur.

26. Riettviis Madur (g) hefur betra enn hans Nœunge, Enn Vegur Ogudlegra blecker þa.

(g) (Betra) Þo honum gange margt a mote, enn hinum Ogudlega j Vil.

27. Einum jdiuláusum luckast ecke siin (h) Høndlun, Enn jdenn Madur verdur audugur.

(h) Ebr. Sa svikfame mun ecke steykia siina Veide, enn þad Riikedœme Mannsins, sem er kostuligt, er Idne.

28. A þeim rietta Veige er Liifed, Og a þeim trodna (i) Stig er eingenn Daude.

(i) (Stig) Allmennings Vegur er Hættulaus. Af-Vegur er fœrlegur, Guds Ord leider til Liifsins, Enn Mannsins eigenn Pootte og Meining til Daudans.

## XIII. Capitule.

Salomon talar framveges um Barna-Agann.

Eirn vitur Sonur lœtur sinn Fødur aga sig, Enn eirn Hœdare hlyder ecke Hirtlingunne.

2. Munnsins Avaxtar nytur Madurenn, Enn Forsmaanarar þeinkia ecke utan Motþrooa.

3. Hvor sinn Munn vardveiter hann vardveiter sitt Lijf, Enn hvor hann er frammhleypenn med sijnum Munne sa kiemur j (a) Ognan.

(a) (Ognan) Pad er, Haaska og Strøffun.

4. Latur Madur gyrnest og fær ecke, Enn Verk-Idner Menn faa noog.

5. Riettvijs Madur hatar Lygarnar, Enn Ogudlegur Madur skammar og hæder sioalfann sig.

6. Riettlæted vardveiter hinn Saklausa, enn Ogudrækelegt Athæfe leider Mann j Synd.

7. Margur er Faatækur hiaa miklum Audæfum, Og margur er Rijkur hiaa sinne Faatækt.

8. Med Audæfum kann Madur ad hiaalpa Lijfe sijnu, Enn eirn Faatækur Madur heyrer ecke (b) Avijtan.

(b) (Avijtan) Rijkur Madur verdur avijtadur, enn fyrer Peninga Skulld verdur hann þo laus laatenn, Sa hinn Faatæke hlytur ad *plaata, sa ecki hefur Fie hlytur ad bitala med Hudenne. *Plaagast.

9. Lios Riettlaatra giorer Glede, Enn Skridlioos Ogudrækenna mun slockna.

10. Mille Drambsamra eru jafnan Deilur, Enn Vijsdoomurenn er hiaa Hyggnum.

11. Audæfe þverra þegar þeim er brudlad, Enn þad sem Menn til samans hallda þad verdur miked.

12. Su Von sem undandregst hrigger Hiartad, Enn þegar þad kiemur sem Madur gyrnist þad er Lijfsins Tried.

13. Hvor Orded forsmaaer hann giorer sioalfum sier Skada, Enn hvor hann oottast Bodorded þeim verdur þad launad.

14. Kienning hyggins Manns er lifande Vatns-Ædur, til ad varast Snorur Daudans.

15. Eitt gott Road giorer Hugarhægd, Enn Forsmaanarans Vegur giorer Ohægd.

16. Forsiaall Madur giorer alla Hlute med Skinseme, Enn faavijs Madur breider ut Heimskuna.

17. Ogudrækur Sendebode flytur Olucku, Enn trur Sendebode er (c) heilnæmur.

(c) Ebr. Er Lækning.

18. Hvor Hyrtingena ecke vill lijda hefur Faatækt og Skømm, Enn sa sem hlyder giarnan Avijtanenne mun til Heidurs koma.

19. Þegar þad kiemur sem Menn gyrnast þad gledur Hiartad, Enn sa sem jllt varast er Faavijsum andstyggelegur.

20. Hvor hann umgeingst med vitrum Mønnum sa verdur Vitur, Enn hvor hann er Fielage Heimskra hann mun Olucku hreppa.

21. Oluckann offsæker Synduga, Enn Riettlaatum verdur gott endurgollded.

22. Gooder Menn munu taka Arf ad Barna-Bornum, Enn Audæfe hins Synduga sparast hinum Riettlaata.

23. Þar er mikel Fædsla j Ploogforum þeirra (d) Faatæku, Enn þeir ed rangt giora fordiarfast.

(d) (Faatæku) Gud giefur Faatækum nog þa þeir eru Gudhræddir.

24. Hvor hann sparar sinn Vønd hann hatar sinn Son, Enn hvor a honum hefur aast sa agar hann fliott.

25. Riettvijs Madur hann etur so hans Saal (e) sedst, Enn Ogudrækenna Manna Kvidur hefur alldrei Nægiu.

(e) Lætur sier nægia.

## XIV. Capitule.

Þau Rettu Hyggende lata siaa sig i Raadsmennsku, i Daglegre Umgeingne; Og i Veralldlegre Stiornan.

Fyrer vitrar Konur verdur Húsed upbiggt, Enn hin Faavijsa (a) nidur-brytur þad med sijnum Verkum.

(a) (Nidurbrytur) Þad er, Sa Madur hlytur ad fordiarfast sem hefur Dugnadarlausa Konu.

2. Hvor hann ottast DROTTinn sa geingur a riettum Veige, Enn sa sem hann forsacktar sa vijkur af hans Veige.

3. Heim-

3. Heimsker tala sem Tyrannar, Enn Vitrer Menn geyma sinn Munn.

4. Hvar ad eru eingenn (b) Yxn þar er hrein Jotann, Enn hvar Uxenn er gagnsamur þar er mikel Inntekt.

(b) (Yxn) Þar sem Menn vinna ecke, Þar aflast þeim og ecke.

5. Trur Vottur lygur ecke, Enn eirn Liug-vottur ber einardlega framm Lyge.

6. (c) Hæadgiarn Madur leitar Vitsku og finnur ecke, Enn hyggnum Monnum er Vitskann liett.

(c) (Hæadgiarn) Ostadfaster og orædvander leita ecke med Alvorn Vitskunnar, helldur ad eins sier til Hroosunar og Fordilldar.

7. Gacktu fra Heimskum, þvi þu lærer eckert af honum.

8. Pad er Vitska Hyggens Manns ad hann acktar uppa sinn Veg, Enn þad er Heimska Fæavijsra, ad ecke er med þeim utan Svik ein.

9. Heimsker hlæa ad Syndenne, Enn goder Menn hafa Þocknan a Goodum.

10. Nær Hiartad er hriggt þa stodar eingenn ytre Glede.

11. Hws Ogudlegra mun afmæast, enn Tialldbud þeirra Fromu mun bloomgast.

12. Morgum lijkar eirn Vegur vel, Enn med seinsta leider hann hann til Dauda.

13. Epter Hlæatur kiemur Hriggd, og (d) Harmur kiemur epter Fognud.

(d) (Harmur) Þad er, Lijka sem Menn plaga ad segia, Druckins Fognadur er O-druckins Harmur. Eingin Lysting er án Sorgar.

14. Einum (e) Onytum Manne mun so ganga sem hann giorer, Enn godur Madur mun yfer honum vera.

(e) Ebr. Þeim sem er fraleitur j Hiartanu.

15. Bernskur Madur truer ollu, Enn Vitugur Madur athugar sinn Gang.

16. Vijs Madur oottast og fordast hid vonda, Enn eirn Dære hleypur diarflega þar j giegnum.

17. Opolugur Madur giorer dæarlega, Enn forhugsadur Madur hatar þad.

18. Hiner Bernsku erfa Heimskuna, Enn forsiaalega ad hondla er Spakra Manna Korona.

19. Vonder hlioota ad beygia sig fyrer Godum, og Ogudleger j Dyrum þess Riettlæata.

20. Fæatækann Mann hata eirnenn hans Næaungar, Enn Rijker Menn hafa marga Vine.

21. Sa Synduge foracktar sinn Næaunga, Enn sa er sæll sem Aumum Miskunar.

22. Þeir sem med Vondum Hreckium fara framm verda (f) bleckter, Enn þeir sem Gott hugsa odlast Tru og Giædsku.

(f) Otrw slær sinn eigenn Herra.

23. Þar er noog sem Menn Erfida, Enn hvar sem Menn med (g) Ordum (einum) umgangast þar er Skortur.

(g) Morg Ord, og þar filger eckert med.

24. Vijsum Manne eru hans Audæfe ein Korona, Enn Heimska Fæavijsra blijfur Heimska.

25. Trwr Vottur frelsar Lijfed, Enn Fals-Vottur svijkur.

26. Hvor hann ottast DROTTinn sa hefur oruggt Vijge, og Born hans verda og verndud.

27. Otte DROTTins er Brunnur Lijfsins, so ad Menn fordest Snorur Daudans.

28. Hvar eirn Kongur hefur margt Folk þad er hans Vegsemd, Enn þar sem Fæatt Foolk er þad giorer Herrann hræddann.

29. Hvor þolenmoodur er sa er vitur, Enn sa sem er opolugur hann auglyser sijna Heimsku.

30. Eitt godgiarnt Hiarta er Lijkamans Lijf, Enn Ofund er Rotnan j Beinunum.

31. Hvor Lijtelmagnanum giorer Ofrijke sa lastar Skapara hans, Enn sa sem miskunar Fæatækum hann heidrar Gud.

32. Sa Ogudlege stendst ecke j sinne Olucku, Enn Riettvijs Madur er lijka j sijnum Dauda hughraustur.

33. J Hyggens Manns Hiarta hvijler Vitskann, og openberast medal Faavijsra.

34. Riettlæte upphefur eina Piood, Enn Syndenn er Folksins Fordiorfun.

35. Skinsamur Pion er Kongenum þeckur, Enn (h) O-duglegum Pion er hann Ovinur.

(h) (Oduglegum) Saa sem jlla forstendur Hwsed svijkur Kongenn, og giører hønum ꝛmæle.

## XV. Capitule.

### Um Margskonar Dygder og O-Dygder.

Eitt miukt (a) Andsvar hepter Reide, Enn hardt Ord uppvekur Grimmd.

(a) Gott Ord og Giegnelegt finnur goodann Samastad.

2. Tunga vitra Manna giører Lærdomenn (b) kiærann, Enn Munnur Faavijsra spyr eirne saman Heimskunne.

(b) (Kiærann) Kann ad hiaalpa hønum vel.

3. Augu DROTTins sioa um alla Stade, Bæde jlla Menn og gooda.

4. Heilnæm Tunga er Lijfsins-Trie, enn (c) Lygegiorn giører Hiarta-Sorg.

(c) Ebr. Enn ein Tunga j hvørre ad er Fordiørfun.

5. Eirn Doare lastar sijns Fodurs Typtan, Enn sa sem Um-Vondunena medtekur mun forsioall verda.

6. J Hwse hins Riettlaata er Gnægd Audæfa, En j Jnntektum hins Ogudlega er Fordiorfun.

7. Munnur Vijsra Manna utdreifer goodum Roadum, Enn Hiarta faavijsra er ecke so.

8. Offur hins Ogudrækna er DROttne Andstyggd, Enn Bæn hinna Froomu er hønum þægeleg.

9. Vegur hins Ogudlega er DROttne Svivirding, enn hvor Riettlætenu epterfilger sa verdur elskadur.

10. Pad er jll Tuckt ad yfergiefa Veigenn, Og sa sem hatar Stroffunena hlytur ad Deya.

11. Helvijte og Glotunenn er fyrer DRottne, Hvad miklu meir Mannanna Hiortu.

12. Spottarenn (d) elskar ecke þann sem hann avijtar, og geingur ecke til þeirra hyggnu.

(d) Hann lætur sier ecke seigiast.

13. Gladt Hiarta giører gledelegt Yferbragd, Enn þegar Hiartad er hriggt þa bilar Hughreystenn.

14. Hygged Hiarta høndlar med Umþeinkingu, Enn diarfer Doarar stioorna heimskulega.

15. Sa sem hriggur er hefur alldrei neirn godann Dag, Enn gott Ged er Daglegt Sælgiæte.

16. Betra er lijted med Otta DROttins helldur enn mikell Fiesiodur sem Oroo-leike er j.

17. Betre er Riettur af Koale med Kiærleika helldur enn alenn Uxe med Hatre.

18. Reidur Madur vekur upp Þrætur, Enn Þolenmoodur nidur setur Kijf.

19. Vegur hins Lata er fullur Pyrna, Enn Vegur þeirra Froomu er vel-lagdur.

20. Eirn vitur Sonur gledur Fodurenn, Enn heimskur Madur er sinne Modur Skømm.

21. Heimskum Manne er Heimskann Fognudur, Enn skinsamur Madur stadnæmest a riettum Veige.

22. Pad Aform verdur ad øngvu sem ei er med Roade, Enn hvar ad eru marger Road-giafar þar stirkest þad.

23. Pad er einum Manne Glede þa Menn svara hønum riett, Og eitt Ord a sijnum Tijma er miog liuft.

24. Vegur Lijfsins liggur upp epter, ad giora Menn forsioala, So þeir fordest Helvijte nidur under.

25. DROTTinn mun Dramblaatra Hws nidur brioota, Enn stadfost giora Ecktunnar Landamerke.

26. Roada-giord hins Arga er fyrer DROTTne andstyggeleg, Enn hreinferdu-ger Menn (e) tala trulega.

(e) Edur svo, Maal þeirra Vingiarnlegu er hreint.

27. Sa

27. Sa hinn Agiarne nidurbrytur sitt eiged Hws, Enn sa sem hatar Giafur mun lifa.

28. Hiarta hins Riettlaata hugsar sig um hvoriu svarande er, Enn Munnur hinna Oguðræknu skwmar af jllu.

29. DROTTinn er langt j burt fra þeim Oguðlegu, enn Bæn Riettlaatra heyrer hann.

30. Vinsamlegt Tillit gledur Hiartad, Eitt gott Rickte giorer Beinenn feit.

31. Pad Eyra sem Lijfsins Um-Vandan heyrer mun bwa a medal hyggenna Manna.

32. Hvor sem ecke vill laata sier segia hann giorer sig sialfann til (f) einskis, Enn hvor hann hlyder Stroffunenne verdur hyggenn.

(f) (Einskis) Pad er, Hann kiemur sier j Gaalgann umsijder.

33. Otte DROTTins er Tucktan til Vitskunnar, og aadur enn þad Mann kiemur til Heidurs þa hlytur hann ad (g) lijda.

(g) Hebr. Er Spekt og Audmykt.

# XVI. Capitule.

Guds Forsion og Stiorn er Furdanleg.

Madurenn asetur ad sonnu nockud j Hiartanu, enn þad kiemur af DROttne sem Tungann skal tala.

2. Sierhvorium þykia sijner Veiger hreiner, Enn DROTTinn alleina giorer Hiartad vißt.

3. * Bifala DROTTne þijnar Giorder, þa munu þijnar Ætlaner Frammgang hafa.

* 1 Petr. 5, 7.

4. DROTTinn giorer alla Hlute fyrer sialfs sijns saker, Eirnenn hinn Oguðrækna til jlls Dags.

5. Drambsamt Hiarta er DROTTne andstyggelegt, Og þad mun ecke ohegndt vera, þo þeir sieu aller j einu Sambande.

6. Fyrer Godgyrne og Trw (a) forlijkast Misgiordenn, og fyrer Otta DROTTins fordast Menn jllt.

(a) (Forlijkast) Vid Gud og Menn, þviad Gud fraskyr Hirtingunne, og Mennerner verda vel til Vina þar fyrer.

7. Pegar nockurs Manns Veiger lijka DROTTne þa giorer hann eirnen hans Ovine til Frids vid hann.

8. Betra er lijted med Riettu enn mikel Inntekt med Rongu.

9. Hiarta Mannsins asormar sinn Veg, Enn DROTTenn alleinasta giefur ad þad frammkvæmest.

10. Spaadomur er j (b) Kongsins Munne, Hans Munnur fer ecke villt j Dome.

(b) (Kongsins) Pviad hann dæmer epter Logum, og Riette, hvad Gud stadfester og bijfalar, so sem annad openbert Embætte.

11. Riett Vog og Vigt er af DROttne, og oll Pund j Secknum eru hans Giorningar.

12. Fyrer Kongenum rangt ad giora er Svijvirding, þviad med Riettindum stadfestest Hea-Sæted.

13. Riett ad raadleggia lijkar Kongenum, og hvor heillt Raad leggur verdur elskadur.

14. Reide Kongsins er Sendebode Daudans, Enn vitur Madur mun blijdka hann.

15. Nær Kongsins Andlit er hyrlegt þad er Lijfed, og hans Raad er lijka sem Kvolldskwrenn.

16. Medtaktu Vitskuna, þvi hun er Gulle betre, og Skinseme ad hafa er þyrmætara enn Silfur.

17. Vegur þeirra Fromu varast jllt, og hvor sinn Veg vardveiter hann bijhelldur sijnu Lijfe.

18. Sa er ganga skal til Grunns gioreft aadur Drambsamur, Eitt dreissugt og Dramblaatt Sinne geingur undan Fallenu.

19. Betra er ad vera Lijtellaatlegs Sinnes med Hoogværum, enn skipta Herfange med Drambsomum.

20. Hvor ed forsialega frammfilger nockru Efne sa finnur Hamingiu, og Sæll er sa sem Traust hefur a DROTTne.

21. Eirn Skinsamur verdur prijsadur fyrer

fyrer eirn vitrann Mann, og liwfleg Ræda kienner vel.

22. Vijsdomur er einn lifande Brunnur þeim sem hann hefur, Enn (c) Ogun Foavijsra er Heimska.

(c) (Ogun) Þeirra Lærdomur, Vitska, Helgedómur, etc.

23. Eitt hygged Hiarta talar viturlega, og kienner vel.

24. Rædur hins vingiarnlega eru Hunangs-Seimur, þær hugga Soalernar, og endurnya Beinenn.

25. Morgum þeckest eirn Vegur vel, Enn hans ed sijdarsta liggur til Dauda.

26. (d) Margur kiemur til stoorrar Olucku fyrer sinn eigenn Munn.

(d) Hebr. Þess Soal sem giører Mædu giører sialfre sier Mædu, þvi hans Munnur beygest ofan yfer hann sialfann.

27. Onytur Madur grefur epter Olucku, og Elldur brennur j hans Munne.

28. Rangsnwenn Madur vekur upp Þrætur, og Bakmoalugur Madur giører Hofdingia sundurlynda.

29. Þverudlegur Madur lockar sinn Naunga, og leider hann a øngvann godann Veg.

30. Hvør hann bender med Augunum hugsar eckert gott, og hvør hann teiknar med Vorunum hann fullkomnar jllt.

31. Groaar Hærur eru Heidursins Korona, Hvoriar ad finnast a Riettlætisins Veige.

32. Eirn Þolennmoodur Madur er betre enn Sterkur Madur, og hann sem Herra er sijns Sinnis helldur enn sa ed Borger yfervinnur.

33. Hlutfollum verdur kastad j Skaut, Enn þau falla epter þvi sem DRottinn vill.

## XVII. Capitule.

Hatur og Þrætur er andstyggelegt og Haaskafullt.

Betre er eirn þurr Bite, þar Madur lætur sier med nægia, helldur enn fullt Hws Sloaturs med Þrætu.

2. Vitur Þræll mun drottna yfer oþrifnum Erfingium, Og mun skipta Erfdenne Brædra a mille.

3. So sem Elldurenn reyner Silfred, og Ofnenn Gulled, so lijka reyner DROttinn Hiortunn.

4. Jllur Madur hlyder Jllum Munnum, Og falskur Madur hlyder giarnan skadsamlegum Tungum.

5. Hvor hann spottar Foatækann sa hæder þess hins sama Skapara, og hvor hann hlackar yfer hans Oforum mun ecke o-ressadur verda.

6. Korona hinna olldrudu eru Barna-Bornenn, og Barnanna Heidur er þeirra Fedur.

7. Ecke hæfer heimskum Manne vel ad tala um hvasa hlute, Miklu midur einum Hofdingia ad hann liuge giarnann.

8. Hvor hann hefur ad giefa hønum er þad so sem eirn Gimsteirn, Hvort sem hann snyst þa er hann Hyggenn halldenn.

9. Hvor hann hylur Syndena giører Vinskap, Enn sa sem (a) ijfer Søkenne giører Hofdingiana osamþycka.

(a) (Yfer) Þad er, Tekur til þess aptur, ofrar oa þvi ad nyu.

10. Stroffun skielfer meir Hyggenn Enn Hundrad Hogg Heimskann.

11. Beisklundadur Madur leitar Skada ad giora, Enn eirn ogurlegur Eingell mun yfer hann koma.

12. Betra er ad mæta Biarndyre, þvi sem rænt er sijnum Hvonum, helldur enn heimskum Manne j sinne Heimsku.

13. * Hvør ed gott med jllu launar Af þess Huse mun ecke jllt linna. *Rom.12,17. 1 Thess. 5,15. 1 Pet. 3,9.

14. Hvor Deilur uppbyriar er lijka sem sa ed rijfur upp fyrer Vatnenu Dykis-gardenn, Hættu af Deilunne fyrr enn þu verdur þar j vafdur.

15. Hvor hann seger þann Ogudlega hafa

hafa riett, og fyrerdæmer Riettloatann, þeir eru baader fyrer DROttne ein Svijvirding.

16. Hvad skulu Foavijsum Peningar j Hende, til ad kaupa Vitsku, first hann er eirn Doare?

17. Sa sem ad Vinur er elskar cavallt, og eirn Broder verdur j Neydenne fundenn.

18. Sa er eirn Doare sem uppa Hondena lofar, og j Borgan geingur fyrer sinn Noaunga.

19. Hvor hann elskar Deilur hann elskar Synd, og sa hoafar giorer siinar Dyr stundar epter Olucku.

20. Rangsnwoed Hiarta finnur eckert gott, Og sa hann hefur rangsnuna Tungu mun falla j Ohamingiu.

21. Hvor hann fæder eirn Doara sa hefur Sorg, og Fader doarlegs Manns hefur ongva Glede.

22. Gladvært Hiarta giorer Lijfed lystelegt, Enn hriggt Gied upppurkar Beinenn.

23. Ogudlegur Madur þyggur giarnann heimuglegar Goafur, til ad beygia Veg Riettarins.

24. Forsioall Madur hefur hyggelegt Vidmoot, Enn Heimskur kastar Augunum hingad og þangad.

25. Foavijs Sonur er Fodursins Harmur, og Hriggd sinnar Modur, sem hann fædt hefur.

26. Pad er ei gott ad plægia þann Riettloata, og ad sloa Hofdingia þann sem riett stiornar.

27. Skinsamur Madur * stiller siina Ræd u, og einn vitugur Madur er (b) dyrmæt Soal. * Jac. 1, 19.

(b) (Dyrmæt) Ypparlig, edla, good.

28. Ef Foavijs Madur þegde þa være hann vitur halldenn, Og skinsamur ef hann siinum Munne hiellde.

## XVIII. Capitule.

Allrabest er ad Treysta DRottne.

Hvor hann fraskilur sig hann leitar þess sem hann (a) lyster, og setur sig j mote ollu þvi sem gott er.

(a) (Lyster) Pad er, Hann leitar ecke epter Sannleika, helldur siinu eigenn Gagne.

2. Eirn Doare hefur ongva Lyst a Skinseme, helldur a þvi sem er j hans Hiarta.

3. Hvört sem sa Ogudlege kiemur þar kiemur og Forocktun, og Smoan med Brijxle.

4. Ord j eins Munne er so sem Diwpt Vatn, og Vitskubrunnurenn er eirn fullur Straumur.

5. Pad er ei gott ad ackta Personu hins Ogudrækna, til ad beygia þann Riettloata j Dome.

6. Varer Doarans færa Proattun, og hans Munnur sæker epter Hoggum.

7. Munnur hins Foavijsa giorer sioalfum sier Skada, og hans Varer fanga hans eigenn Soal.

8. (b) Bakmoalugs Manns Ord eru Slog, og ganga einum j giegnum Hiartad.

(b) Hebr. Og þau fara diupt nidur j Lijfed.

9. Sa sem latur er j sinne Vinnu hann er Broder þess sem fyrerfer siinu.

10. Nafn DROTTins er eirn sterkur Kastale, þangad hleypur hinn Riettloate, og verdur verndadur.

11. Rijkdomur Audugs Manns er honum sterkur Stadur, og so sem hoar (c) Mworvegg ur j kringum hann.

(c) Hebr. J hans Þonkum.

12. Nær nockur skal j Grunn falla þa verdur hans Hiarta oadur Dramblaatt, og fyrr enn Madur til Heidurs kome þa (d) hlytur hann oadur ad lijda.

(d) Hebr. Og Audmykt er fyrr enn Mann, etc.

13. Hvor fyrre giefur Andsvar enn hann heyrer honum er þad Foavitska og Skomm.

14. Hvor hann hefur gladt Hiarta sa kann sier j siinum Mootgange vid ad hallda, Enn þegar Hugurenn er fallenn, Hvor kann þad ad bera?

15. Eitt skinsamlegt Hiarta kann hyggelega sier ad haga, og Vitrer Menn heyra giarnan ad Menn skinsamlega hondle.

16. Gaafa Mannsins (e) giefur honum Rwm, og kiemur honum fyrer Stoor-Herrana.

(e) (Rwm) Peningar n/vega einum Inngang fyrer Herrana.

17. Riettlaatur Madur er vijs fyrerframm uppa sijna Sok, kome hans Naaunge þa finnur hann hann a þann Haatt.

18. Hlutfall setur nidur Deilur, og giorer Adskilnad a millum þeirra Megtugu.

19. Sa Broder sem (f) styggdur er er fasthelldare en fastur Stadur, Og Praattan helldur fastara enn Steingur a Hollunne.

(f) (Styggdur) Nær eirn Broder er styggdur af odrum Ranglega, þa er audvelldara ad vinna sterkann Kastala enn hann ad forlijka, þess nænare og kiærare Vinerner eru, þess beiskare og geystare er Reidenn, so sem a mille Manns og Konu, og Brædra og Systra, etc. Jac. 3, 6.

20. Einum Manne verdur launad epter þvi sem hans Munnur hefur talad, Og verdur saddur af Avexte Vara sinna.

21. Daude og Lijf stoar j Tungunnar Vallde, Hvor hana elskar mun af hennar Avoxtum neyta.

22. Hvor hann finnur eina Eigenkonu sa finnur Goodann Hlut, og medtekur (g) Velþocknan af DROTTne.

(g) (Velþocknan) Þo ad ei gange stundum allt ad Oskum, þa veit hann þo, ad hans Hiuskapar-stiett skikar Gude, so sem hans eiged Verk og Skickan, og hvad hann giorer edur lijdur þar inne, þad truer hann ad Gude vel lijke.

23. Fatækur Madur talar bidiande, Rijkur Madur ansar rembelega.

24. (h) Trwr Vinur hefur eirn Mann elskara, og stendur fastara hia honum helldur enn eirn Broder.

(h) Vandalauser, eru oss opt betre enn Frillder og teingder.

# XIX. Capitule.

Þad er ecke ad hrekia Hinn Fatæka; og ecke ad Ovirda Hinn Rijka.

Betre er sa Fatækur sem framm geingur j sijnum Fromleika helldur enn rangsnuenn Madur med sijnum Vorum, sem þo er Faavijs.

2. Þar Menn umganga ecke med Skinsemd fer ecke vel (a) framm, og hvor med Footunum er fliotur giorer Skada.

(a) Þvi eirn verdur ad lijda annann.

3. Faavitska Mannsins umsnyr hans Veige, so ad hans Hiarta æder j moote DRottne.

4. Audæfe giora marga Vine, Enn Fatækur Madur verdur af sijnum Vinum forlaatenn.

5. Eirn Liugvottur blijfur ecke ohegndur, og sa sem frammgiarnlega framm ber Lyge mun ecke undan hlaupa.

6. Margur tekur Vara uppa Hofdingians Personu, og aller eru Viner þess er Gaafur giefur.

7. Fatækann Mann hata aller hans Brædur, jaa, hann firrast og eirnenn hans Viner, og sa sig forlætur uppa Ord hefur eckert.

8. Sa sem skinsamur er hefur (b) kiært sitt Lijf, og forsiaall Madur finnur gott.

(b) (Kiært) Hann vaktar sig vid Haaskanum, truer ecke fogrum Ordum Folksins of-frekt.

9. Eirn Falsvottur blijfur ecke ostraffadur, og sa sem diarflega talar Lygd mun fyrerfarast.

10. Faavijsum Manne hæfer jlla ad hafa gooda Daga, Miklu midur einum Præl ad drottna yfer Hofdingium.

11. Sa sem er (c) Polenmoodur hann er hyggenn Madur, Og þad er honum Heidur ad hann lætst Odygdena ecke heyra.

(c) (Polinmodur) Hvor hann kann ad laata so sem hann heyre ecke sa vill verda vijs.

12. Kongsins Ovinaatta er sem (d) Grenianungs Leons, Enn hans Naad er sem Dogg a Grase.

(d) Hann ber ecke Sverdid forgiefins. Rom. 13, 4.

13. Faavijs Sonur er sijns Fodurs Hiarta-Sorg, og kijfenn Kona eirn sijfelldur Leke.

14. Hus

14. Hus og Audæfe erfiſt epter Forelldra=na, Enn ſkinſom Kona kiemur af DROttne.

15. Lete giorer Svefn, Og jdiulaus Saal mun Hungur þola.

16. Hvor Bodorded vardveiter hann vardveiter ſitt Lijf, Enn ſa ſem ſinn Veg foracktar mun (e) deya.

(e) (Deya) Pad er, Hann kiemur i Hendur Bodlenum, og i Gaalgann, Þvi Ohlydenn Børn um ſlya hann ecke.

17. Hvor Faatækum miſkunar ſaa laanar DROTTne, Hann mun honum þad goodu endurgiallda.

18. Tyfta þu Son þinn a medan vondt er fyrer Hondum, Enn laat ecke Saal þijna verda tilhrærda ad drepa hann.

19. Pviad mikell Grimmleike giorer Skada, Par fyrer gief hann lauſann, ſo kanntu hann framar ad aga.

20. Hlyd þu Raadleggingunne, og medtak Avijtanena, So ad ſijdar meir verder þu hyggenn.

21. Par eru margar Raadagiørder j eins Manns Hiarta, Enn Raad DROTTins ſtendur ſtodugt.

22. Eirn Madur hefur Lyſt af ſijnum Velgiørdum, Og betre er eirn Faatækur enn eirn Liugare.

23. Otte DROTTins ſtodar til Lijfſins, Og mun ſaddur verda, ſo eckert mun hann jllt heim ſækia.

24. Latur Madur hylur ſijna Hond j Potſtinum, og ber hann ecke aptur ad (f) Munnenum.

(f) (Munnenum) So ſem Maaltæke er, Hann er ſo latur, hann nenner ecke ad mata ſig fyrer Letenne, þo ad Naturenn ſtande fyrer honum, edur a Fatenu, Enn hann meinar Kiennefedur, Stiornendur, Þionuſtu Folk, þad ed letelega giorer ſitt Embætte, þo ad þeim ſie þad audvelldlega laſhægt.

25. Ef Madur ſlær hinn Haadgiarna þa vitkaſt hinn Bernſke, enn ef Madur ſtraffar ſkinſamann Mann þa verdur hann hyggenn.

26. Hvor Fodurenn eydeleggur, og burt rekur Modurena, Hann er eitt ſkammarlegt og bølvad Barn.

27. Hættu Son minn! ad hlyda þeim Aga ſem fra=leider ſkinſamlegum Lærdome.

28. Eirn oraadvandur Vottur ſpottar Riettenn, Og Ogudlegra Manna Munnur gleyper Oriettinn.

29. (g) Haadgiornum Monnum eru Hefnder reidubunar, Og Hogg a Hriggenn heimſkra Manna.

(g) (Haadgiornum) þa enu vondu ohlijdnu Skalka mun Heingiarenn ſtrykia, þar lenda þeir viſſulega.

## XX. Capitule.

Ofdryckia og Lete eru Orſøk til mikels Jlls i Heimenum.

Vijn giorer lauſlaata Menn, Og ſterkur Dryckur (a) galda, hvor þar hefur Lyſt til verdur alldrei vitur.

(a) (Galda) Þad er, Þann O, ſid, Eph. 5, 18. Drecked ydur ecke Vijndrucknа, þar af kiemur oſkickanligt Lijferne.

2. Skielfing Konungſins er ſo ſem Grenian ungs Leons, ſa hann ſtygger ſa ſyndgar mote ſijnu Lijfe.

3. Pad er Mannenum Heidur ad vera j fra Deilum, Enn þeir ed deila giarnan þad eru allt ſaman Daarar.

4. Fyrer Kulda Saker vill (b) latur Madur ecke eria, þar fyrer hlytur hann um Kornſkurdar=Tijmann ad bidia og ecke faa.

(b) (Latur) Þad eru Predikarar og Valldsſtiornarmenn, þeir ecke flytia trulega ſitt Embætte, og ottaſt Freiſtingar, edur Hatur, og etc. þeir eru ſo ſem later Husbændur.

5. Eitt Raad j Hiarta Manns er ſvo ſem diup Votn, Enn eirn vitur Madur kann ad ſiaa hvad hann meinar.

6. Morgum Monnum er hrooſad, ad þeir ſieu (c) goder, enn hvor vill finna þann eirn ſem er riettelega goodur.

(c) (Godir) Þviad Hræſnenn er mikel, einnenn aa medal godra Verka, menn hallda margann fyrer vondann, og margann fyrer godann, og giora þeim baadum oriett, ſem þo eige eru ſo, þar fyrer haf ecke Trauſt aa neinum Manne, aller eru þeir Syndarar.

7. Riettlaatur Madur, sa frammgeingur j sinne Goodmennsku, Þess Børnum mun vel vegna epter hann.

8. Kongur sa ed situr a Stolnum, til ad dæma, tvijstrar ollu jllu med sijnum Augum.

9. * Hvør maa segia, Hreinn er eg j mijnu Hiarta? Og klaar af mijnum Syndum?

* 1 Joh. 1, 8.

10. Marghaattud Vog og Mæling er hvortveggia fyrer Gude andstyggelegt.

11. Mann þecker og eitt Ungmenne af sijnum Athøfnum, hvørt þad vill (d) vera gott og hreinskiled.

(d) Tamyr er Barns-Vandenn.

12. Heyranda Eyra, og siaaande Auga, þad giører DROTTinn hvørtveggia.

13. Elska ecke Svefnenn, so þu verder ecke Faatækur. Hallt opnum þijnum Augum, þa muntu Brauds Gnægd hafa.

14. (e) Vondt, Vondt, segia Menn, þa þeir hafa þad, Enn þa þad er j burt bera Menn þvi Prijs.

(e) (Vondt) Hvad mann hefur leidist hønum, og vill hafa þad sem Madur ecke hefur.

15. Þar er Gull og margar Perlur, Enn vitur Munnur er kostulegt Klenodium.

16. Tak þu Klæde þess sem fyrer annann j Borgun geingur, og pantset þad fyrer Saker hins Okiennda.

17. Stoled Braud smackar hvørium Manne vel, Enn þar epter fylløst hans Munnur upp med Sandsteina.

18. Aform standa nær þau byriast med Raade, Og Orløg skulu Menn fremia med Skinsemd.

19. Samlaga þig ecke vid þann Mann sem Leyndarmaal openberar, Og vid Bakmaaluga og Fals-Munna.

20. Hvør hann bølvar sijnum Fødur og sinne Moodur, Þess Lioos mun utslockna j midium Mirkrum.

21. Su Erfd sem Menn (f) flyta sier miøg epter j Firstu mun umsijder ecke blessud verda.

(f) (Flyta) So sem þau Børn giøra er giarnan sæe sijna Frændur og Forelldra dauda vera, Item, Þeir sem annara Manna Eigur med nockru Yfervarpe under sig draga, j moote þvi Tijunda Bodorde, so sem Absolon, Brutus.

22. Seg ecke, Eg skal launa aptur jllt, Bijd DROTTins, hann mun hiaalpa þier.

23. Marghaattud Vigt er DROTTni svijvirdeleg, og raung Vog er ecke good.

24. Hvørs eins Manns Gangur kiemur af DROTTne, Hvør er sa Madur sem skilur sinn Veg?

25. Þad er Mannenum Snara ad (g) lasta þad (h) Heilaga, Og þar eptera leita til Aheita.

(g) Ebr. Ad uppsvelgia þad Heilaga.

(h) Guds Nafn, Ord, Þionustugiørd, etc. Og giefa sijdan Ølmusu, Bidia og Fasta etc. Þad er hid sama sem Ordtakid um hlioodar, S. Marteinn! Þeir offra þier einum Peninge, enn stela fra þier Heste: eda ad stela Nautenu, enn giefa Lausungina j Guds Nafne.

26. Eirn vijs Kongur tvijstrar þeim Ogudlegu, Og fører Hiol yfer þa.

27. (i) Skridlios DROTTINS er Mannanna Ande, Þad geingur j giegnum allt Hiartad.

(i) (Skridlios) Þad er, Guds Huggun og Naadar Vilie.

28. Ad vera godur og sannordur þad bijvarar Kongenn, Og hans Haasæte stirkest fyrer Godgyrnena.

29. Ungdomsins Stirkur er hans Heidur, Og þau graau Haarenn eru Pryde þeirra Gømlu.

30. Menn hlioota ad hamla þeim (k) jllu med strongu Straffe, Og med alvarlegum Høggum sem Madur finne til.

(k) (Jllu) Þeir jllu batna ecke a Ordum, helldur med Høggum, ad hallda slaka Stiorn, edur laata hvørn Raada sialfum sier, er einginn Nytseme.

Ebr. Lækning þeirra Vondu er blaa og blodug, og su Plaaga sem geingur jnn j Holldid.

XXI.

# XXI. Capitule.

Gud Drottenn rædur og stiornar øllum Hlutum.

Kongsins Hiarta er j Hende DROTTins, so sem Vatnslækerner, og hann hneiger þad hvert ed hann vill.

2. Hvorium Manne virdest riettur sinn Vegur, Enn DROTTinn alleina giorer (a) ekalaus Hiortunn.

(a) (Ekalaus) Þad er, Allt hvad mann giører epter Guds Bifalning, þess er Madur O:Ekande, ad þad er riett, Enn fyrer utan Guds Ord eru aller Hluter o:vijs Venia, og fagur asynd.

3. Vel og riett ad giora er DROTTne þægelegra enn Offur.

4. Drambsom Augu og Dreissugt Sinne, og (b) Skridlioos Ogudrækenna, er Synd.

(b) (Skridlios) Þad er, Vingan Veralldarinnar, hvør hann er Vinur Veralldarinnar sa er Guds O:vinur.

5. Fyrerætlan hins Jdna orkar yferfliotanlegrar Nægdar, Enn sa þoler Parfnan sem ofhastur er.

6. Hvør hann safnar sier Fiesiod med Lygum hann mun grijpa j tomt, og falla a medal þeirra sem leita epter hans Dauda.

7. Raanskapur Ogudrækenna mun skielfa þa, þviad þeir villdu ecke giora hvad riett var.

8. Hvør eirn annan Veg geingur sa er breckvijs, Enn sa sem framm geingur j sinne Bifalningu þess Verk eru riett.

9. Betra er ad bua j Hyrningu a Huss-þekiunne Enn ad bua til samans j einu Huse hiaa Kijfsamre Konu.

10. Ond hins Ogudlega æsker jlls, og ann sijnum Naunga einskis.

11. Nær Spottarenn verdur straffadur þa hyggnast þeir enu Bernsku. Og nær Menn undervijsa hyggnum Manne þa verdur hann skinsamur.

12. Riettlaatur Madur hagar sier (c) viturlega vid Hus hins Ogudlega, Enn Ogudleger Menn hugsa ei utan ad giora Skada.

(c) Epterdæme er Davids vid Saul.

13. Hvør sijn Eyru aptur byrger fyrer Kalle hins Fataæka Hann same mun og kalla og ecke heyrdur verda.

14. (d) Heimugleg Gaafa hepter Reide, Og Giøf j Skaut løgd aakafa Grimmd.

(d) (Heimuglig) Hvør hann ecki hroosar sijnum Velgiørninge, svo sem Pharisearenn giørde. Matth. 6, 2.

15. Þad er Fognudur Riettlaatum Manne ad giora hvad riett er, Enn Hrædsla Jllgiorda Monnum.

16. Sa Madur sem villest af Vitskunnar Veige mun blijfa j daudra Manna Sofnude.

17. Hvør hann giarnan lifer j Vellystingum hann mun skorta, Og hvør hann elskar Vijn og Vidsmiør verdur ei rijkur.

18. Ogudleger Menn hlioota fyrer Riettlaata giefner ad verda, Og Forsmaanarar fyrer þa goodu.

19. Betra er ad byggja a Eydelande enn hiaa Deilugiarnre og Reidenne Konu.

20. J Huse hyggens Manns er elskulegur Fiesioodur, og Vidsmiør, Enn Heimskur Madur eyder þvi.

21. (e) Hvør Miskunseme og Goodgyrne epterfilger hann finnur Lijfed, Miskun, og Heidur.

(e) (Epterfilger) Sælir eru Miskunsamir. Matth. 5, 7.

22. Vitur Madur vinnur Borg þeirra (f) stirkvu, og steyper þeirra Magt fyrer þeirra Uggleyse.

(f) (Stirkvu) Þeir sem treysta uppa Magt, og eru uggalauser, þar er eingenn Lucka med, svo sem Babylon, Rom, etc.

23. Hvør hann vardveiter sinn Munn og Tungu hann vardveiter Saal sijna fyrer Angist.

24. Sa sem ad er dreissugur og Drambslaatur (g) kallast eirn Lausinge, sa er j Reidenne syner Metnad.

(g) (Kallast) Þad er, Hann fær so skiemmelegt Nafn, og alldrei verdur hann ad losligum Heidurs Manne, þviad hans Traass og Ofdirfd, Hugmodur og Dramb giører hann haturlegann.

25. Latur

25. Latur Madur (h) deyr yfer sinne Osk, þviad hans Hendur villdu eckert giora.
(h) (Deyr) Fyr enn hann giörer nockud heidarligt kiemur Daudinn yfer hann, þesser eru þeir forsömunarsömu Predikarar, Stiornarar, Hwsbændur, og vilia þo hafa Himinenn, Æru, Gots, og þo eckert erfida edur lijda.

26. Daglega vosk ar hann, enn hinn Riettlaate giefur, og neytar ecke.

27. Foorner Ogudlegra Manna eru Svijvirding, þviad þær eru j Syndunum offradar.

28. Eirn Lingvottur fyrerferst, Enn sa sem hlyder hann laata Menn og alltijd aptur tala.

29. Hinn Ogudlege þreynger sier j giegnum med Hofdenu, Enn sa sem goodur er hans Vegur stendur stodugur.

30. Par hiaalpar eingenn Vitska, eingenn Skinsemd, eckert Raad, j moote DRottne.

31. Hestar verda bwner til Bardagans, enn (i) Sigurenn kiemur af DRottne.
(i) Hebr. Velferdenn heyrer DRottne til.

## XXII. Capitule.

Reglur Vidvijkiande Hus-Stiorn.

Rikte er kostulegra enn mikel Audæfe, og Hylle er betre enn Silfur og Gull.

2. (a) Rijker og Faatæker hliioota ad vera hvor annara a medal, DROTTinn hefur þa alla saman giort.
(a) Mætin hvor ödrum.

3. Forsiaall Madur sier Oluckuna, og leyner sier, Enn hiner Bernsku ana framm, og faa skada.

4. Hvar Menn þola j Otta DROTTins, þar eru Audæfe, Heidur og Lijf.

5. Pyrnar og Snorur eru a Veige hins Raangsnwna, Enn hvor sig tekur þar langt fra sa vardveiter sitt Lijf.

6. So sem Menn (b) venia Ungmenned so leggur hann þad ecke af þa hann elldest.
(b) Tamur er Barns Vandenn.

7. Rijkur drottnar yfer Faatækum, og sa sem þyggur Laan er Præll þess sem laanade.

8. Hvor Raanglæte nidur saaer sa uppsker Mædu, og fyrer Vende sinnar Illsku mun hann fyrerfarast.

9. (c) Gott Auga verdur blessad, þviad þad giefur Faatækum af sijnu Braude.
(c) (Gott Auga) Pad er, Eirn milldur Madur.

10. Utskwfa Haadgiornum Manne, þa fer Kijsed burt, þa hætta Deilur og Forsmijnkaner.

11. Hvor hann hefur trwtt Hiarta, og liwflega Rædu, þess Vinur er Kongurenn.

12. Auga DROTTins geyma (d) gott Raad, Enn Foorsmaanarans Ordum umsnyr hann.
(d) (Gott Raad) Hvad sem gott verdur j Lærdomenum, edur Ur-rædum, þad bijvarar Gud, annars eru Lyge-munnar so marger, ad þad yrde alltsaman fordiarfad.

13. Sa hinn Late seiger, Leon er þar ute, kann skie eg verde (e) drepenn a Strætenu.
(e) (Drepenn) Pad eru Kiennefedur, Stiornendur, og Pienarar, þeir ed ei bijta Refinn, ganga ei j giegnum þad þyckva og þunna.

14. Hoorunnar Munnur er ein diwp Grof, Hvorium DROTTinn er Reidur sa fellur þar j.

15. Heimskann er folgenn j Ungmennesins Hiarta, Enn Hyrtingar-Vondurenn rekur hana langt burt fra þvi.

16. Hvor ed giörer rangt Faatækum, til þess, ad auka sijn Audæfe, hann mun og einum rijkum Manne giefa, og þola Skort.

17. Hneig þijn Eyru, og heyr þu Ord vitra Manna, Og tak þier til Hiarta mijna Kienning.

18. Pviad þad mun giora þier Hægd ef þu geymer hana hiaa þier, og þetta mun til samans fyrer þinn Mun vel (f) luckast.
(f) (Luckast) Pu munt nytsamur vera þar med, og hiaalpa þier og ödrum.

19. Ad þitt Traust sie uppa DROttinn, Hlyt eg daglega um slijkt þig ad aaminna þier til gooda.

20. Hef eg þier ecke margfalldlega fyrerskrifad, med Raadlegging og Kienning?

21. So ad eg syne þier sannann Grund-

voll Sannleiksins, so þu kunner þeim riett ad (g) andsvara sem þig senda.

(g) (Andsvara) Þu kannt ad segia med godre Samviskn, Ja Herra, þad er giort sem þu baudst mier, þviad þu veitst, ad Gude þocknast hvad þu giører epter hans Orde.

22. Rændu ecke Faatækann, þo ad hann sie Faatækur, og nidurþrick þu ecke þann hinn vesæla j Borgarhlidenu.

23. Þviad DRottinn mun hondla um þeirra Sok, og foottroda þeirra Foottrodendur.

24. Samlaga þig ecke vid Reidann Mann, og hallt ecke med Grimmum Manne.

25. Ellegar maa skie þu lærer hans Vegu, og faaer Hneixlun Saalar þinnar.

26. Vertu ecke hiaa þeim sem binda Hendur sijnar, og j Borgun ganga fyrer Skullder.

27. Þviad ef þu hefur þad ecke til ad bitala, þa munu Menn og þinn Bed undan þier j burt taka.

28. Fær þu ecke aptur a Bak þau fyrre Landamerke, sem Fedur þijner hafa giort.

29. Sieaer þu nockurn Mann oastundunarsamann j sijnum Giørdum, hann mun standa fyrer Kongenum, og hann mun ecke standa fyrer þeim O=edla.

## XXIII. Capitule.

Hof og Maate i Mat og Drick þocknast bæde Gude og Monnum.

Nær þu situr og bordar med einum Herra, so athuga þu, Hvoru þu fyrer þier hefur.

2. Og set (a) Knijf a Barka þier, vilier þu Lijfe hallda.

(a) (Knijf) Þad er so miked, Geym þijna Tungu, so þu taler ecke ofmargt, og komer þar fyrer j Hæsska, etc. Þviad Riettarenn er otrwr, so er og j Hofgørdum falskt Braud, þar lygur hvør a annann, og hræsnar vid annann, þar til hann kiemur hønum under, enn sier up, Inf. 28, 20.

3. Oska þier ecke hans Fædu, þviad þad er Falskt Braud.

4. Mæd þig ecke ad verda rijkur, og laat af þijnum Uppafundningum.

5. Laat Augu þijn ei þangad fliuga sem þu kannt ecke ad (b) faa, þviad þad giører sier Vænge, so sem ein Ørn, og flygur upp ad Himne.

(b) (Faa) Þess meir sem Madur gyrnist þad, þess lengra fer þad undan.

6. Neyttu ecke Brauds hiaa Øfundsiukum Manne, og æsk þu þier ecke hans Fædu.

7. Þvi, lijka sem ein (c) Forynia er hann hid innra, hann seger, Et og Dreck, Enn Hiarta hans er þo ecke til þijn.

(c) (Forynia) Þad er, Ostadfast, svo sem Glæringar a Rottu fliuga, hvar uppa ei maa treysta, so lætst hann god=giarn vera, enn er þo eckert, etc. Hebr. Þviad eins og hann acktar þig i sijnn Hiarta, so mun þad vera.

8. Þijna Bita, sem þu hefur eted, hlytur þu upp ad giefa, og þu maatt tapa þijnum vinsamlegum Ordum.

9. Tala þu ecke fyrer Eyrum hins Heimska, þviad hann fyrerlytur Hyggende þinnar Rædu.

10. Færdu ecke aptur a Bak þau fyrre Landamerke, og gack ei uppa Akra Fodurlausra.

11. Þviad Volldugur er þeirra Frelsare, hann mun utrietta þeirra Sok þier j moote.

12. Gief þitt Hiarta til Tyftunar, og Eyru þijn til Skinsemdar Rædu.

13. Laat ecke af ad hyrta Ungmenned, þvi ef þu slær þad med Vendenum þarf þad ecke dreped ad verda.

14. Þu (d) fleinger þad med Vendenum, enn þu frelsar Ønd þess fra Helvijte.

(d) Fleinger þu hann, þa þarf ecke Bødulleun ad strykia hann, þar hlytur Hyrtingar Agenn ad vera; Age Faderenn ecke, þa giører þad Bødulleun vist, nr hans Høndum sleppur eingenn, þvi þetta er Guds Domur, Psal. 37, 8. 27. Infr. 24, 1.

15. Son minn! Ef þu ert hyggenn, þa gledst og mitt Hiarta.

16. Og mijn Nijru fagna þegar Varer þijnar tala hvad riett er.

17. Þitt Hiarta filge ecke Syndurunum, vertu helldur daglega j DRottins Otta.

18. Þviad þad mun þier siidar meir gott vera, og Von þijn mun ecke bregdast.

19. Heyr þu, Son minn! og vertu hyggenn, og stiorna Hiarta þijnu a Veigenn.

20. Vertu ei med Olsvelgiurum og Groadugum.

21. Þviad Olsvelgiarar og Groaduger utarmast, Og Svefnugur Madur hlytur ad bera totrug Fot.

22. Hlyd þu Fodur þijnum sem þig hefur gieted, og forsmaa ecke Modur þijna, þegar hun elldist.

23. Kaup þu Sanninde, og sel ecke, Vitsku, Tuckt, og Skilning.

24. Fader hins Riettlata fagnar, og sa sem vitrann Son hefur gieted gledst þar yfer.

25. Laattu Fodur þinn og Modur fagna og gladvær vera, sem þig gieted hafa.

26. Gief mier, Son minn! Hiarta þitt, og laat þijnum Augum vel þocknast mijna Vegu.

27. Þvi ein Skiækia er ein diup Grof, og ein Hoorkona þraungur Pyttur.

28. Og hun umsitur so sem eirn Reyfare, og þeim enu diorfu a medal Mannanna safnar hun ad sier.

29. Hvar er Vei? Hvar er Harmur? Hvar eru Deilur? Hvar eru Akiærur? Hvar eru Averkar fyrer utan Tilverknad? Hvar eru Raud Augu?

30. Sein ad er, þar sem Madur liggur vid Vijn, og kiemur ut ad drecka þad sem sa er skeinkt.

31. Alyttu ecke Vijned, ad þad er so raudt, og er so fagurt j Glasinu, þad rennur minklega nidur.

32. Enn epter a bijtur þad sem Hoggormur, og stijngur sem ein Nadra.

33. Þa munu Augu þijn lyta epter annarlegum Konum, og Hiarta þitt tala ranghverfa Hlute.

34. Og (þu) munt vera sem nockur sa er sefur j midiu Hafe, og lijka sem einn uppa Mastrenu sefur.

35. Þeir slaa mig, Enn mier er þad þo ecke saart, þeir beria mig, Enn eg kienne ecke til þess, Nær mun eg vakna, svo ad eg þetta optar fremie?

# XXIV. Capitule.

Reglur i Umgengne med ødrum.

Epterfilg (a) ecke Vondum Monnum, og ooska ecke med þeim ad vera.

(a) (Epterfilg) Þad er, Laat þu þier ecki leidast þitt auma Lijf og Fatækt, svo þu viller vondum Monnum filgia j þeirra illu Lijferni.

2. Þviad Hiarta þeirra stundar epter Skada, Og Varer þeirra eggia til Olucku.

3. Med Vitsku upbiggest Hused, Og vid Magt helldst fyrer Skinseme.

4. Af (b) skickanlegre Heimelis Forstodu uppfyllast Geymsluhusen med allskins kostulegann og dæleganu Rijkdom.

(b) (Skickanlegre) Nær Skickun er halldinn j Husenu þad kemur meira af Stad enn stort Arfidi, so sem þegar Madur giefur, hvar, hoonar, hvorium, Mann skal giefa.

5. Vitur Madur er sterkur, og forstandugur Madur er megtugur af Krapte.

6. Þviad med Raade hlytur Bardaganum frammfilgt ad verda, Og hvar ed marger Raadgiafar eru þar er Sigur.

7. Faavijsum Manne er Vitskann of haa, hann þorer ei sijnum Munne j Borgarhlidenu upp ad luka.

8. Hvor ed sialfum sier Skada giorer Sa maa med riettu kallast (c) Hofud-Skalkur.

(c) (Hofud-Skalkur) Nockrer Menn eru so illgiarner, ad þeir giora suser sialfum sier Skada, so ad þeirra Naunge meige saa meire Skada. So sem ad giorde sa sem liet ut stinga sitt annad Auga, so ad hans Naunge skyllde missa sijn bæde Augu. Psalm. 28, 4.

9. Þankar hins Heimska eru Synd, og Haadgiarn Madur er fyrer Monnum Svijvirdelegur.

10, Sa

10. Sa er ecke (d) sterkur sem ecke er stadfastur j Neydenne.

(d) (Sterkur) Margur er hugadur þegar vel geingur, og hann ottast ecki fyrer Tiju þa hann er alleina.

11. Frelsa þa sem Menn vilia (e) deyda, Og haf þig ecke j burt fra þeim sem Menn vilia af Lijfe taka.

(e) (Deyda) Lijka sem menn drapu Christna fordum, og enn nu, og hlæa þar ofan a, edur segia, eg skil þad ei, Eg hlyt ad giøra mijns Herra Vilia, og Hlydinn ad vera hans Bijfalningu.

12. Ef þu seger, Sioa! vier hofum þar ecke Skin a, Meinar þu ecke; ad Sa sem rannsakar Hiortun merker þad? Og Sa sem giefur Giætur ad Soalunne þecker þad, Og giallde Mannenum epter sijnum Verkum?

13. Neyttu (f) Hunangsins minn Son, Þviad þad er gott, Og Hunangs-Seimur er sætur þijnum Hoalse.

(f) (Hunangs) Þad er, Neyttu þess gooda sem GUD hefur þier giefed, og spara þad ecke þier til Skada.

14. So og lær þu Vitsku fyrer þijna Soal, Nær þu finnur hana, so mun þier vel vegna sijdann, og Von þijn mun ecke ad øngvo verda.

15. Umsit ei so sem Ogudlegur Madur Hus hins Riettferduga, og spill ei hans (g) Hvijld.

(g) (Hvijld) Sem þeir giora er Faatækra Manna Jarder edur Eigner til sijn hripsa, edur þreyngia þeim þar fra med Kiænsku.

16. Þvi (h) Siosinnum fellur Riettloatur, og rijs upp aptur, Enn Ogudrækner Menn nidursøckva j Oluckuna.

(h) (Siosinnum) GUD hialpar ad sønnu Riettlaatum Manne alltijd upp aptur, hvørsu opt sem hann fordiarfadur og utrekenn verdur.

17. Fagna ecke yfer Falle Ovinar þijns, og laat þitt Hiarta ecke hlacka yfer hans Ofoórum.

18. DROTTinn kann ad sioa þad, og lijka þad jlla, Og vijkia Reide sinne fra honum.

19. Reidst ecke vegna vondra Manna, og ofunda ecke þann Ogudlega.

20. Þvi sa vonde hefur ecke uppa neitt ad vona, og Skridlios Ogudlegra mun slockna.

21. Son minn! oottast þu GUD og Kongenn, Og samlaga þig ecke vid Upphlaupssama.

22. Þviad þeirra Glatan mun voveiflega til standa, Og hvør veit nær kiemur beggia Olucka.

23. Þad kiemur og af þeim vijsu, * Ad Manngreinaraalit j Dome er ecke gott.

* Jac. 2, 1.

24. Hvør sem seger til hins Ogudlega, Þu ert Riettvijs, Þeim bolvar Folked, og Almugenn hatar hann.

25. Enn þeir sem straffa hann, þeir þocknast vel, og rijkugleg Blessan kiemur yfer þa.

26. Riettvijslegt Andsvar er so sem Kiærleiks Koss.

27. Frammkvæm j Firstu þar uti Utvegu þijna, Og eria þinn Akur, Þar nærst uppbiggdu þitt Hus.

28. Ver þu ecke ad þarflausu Vitne j mote Naunga þijnum, Og svijk ecke med þijnum Munne.

29. Seg þu ecke, Lijka so sem vid mig er giort vil eg aptur giora, Og sierhvørium endurgiallda sijn Verk.

30. Eg gieck hioa Akre hins Lata, og framm hioa Vijngarde hins Foavijsa,

31. Og sioa, ad þar var fullt med Netlur, og stood fullt med Þyrna, og Murenn var nidur fallenn,

32. Þegar eg þad soa, lagde eg þad a Hiartad, Eg athugade og lærde þar af.

33. Þu villt enn sofa Stundarkorn, og dotta lijted, og (i) saman leggia litla Stund Hendur þijnar, ad þu hvijler þig?

(i) So undann draga þeir Lotu þad þeir eiga ad giora, A Morgun, Morgun, Nooaur er Tijmenn, þad er snart giort, eg kiemst enn þangad sem eg a ad komast.

34. Enn þinn Armoodur mun ad þier koma sem eirn Vegfarande, og þijn Foatækt sem eirn Herklæddur Madur.

## XXV. Capitule.

Laun Spekennar er Uphafning og Virding.

Þetta eru og Ordskvider Salomonis, sem Menn Ezechias Gydinga Kongs hafa þar vid auked.

2. Pad er Gllde Dijrd ad (a) hylia eina Sok, Enn Kongenum er þad Heidur ad rannsaka Sokena.

(a) (Hylia) Um Guds Stiornan og leynda Hlute skulum vier ecki vera vijser, og villa vita, Hvarfyrer? Helldur ollu trua, enn j einu veralldlign Rijki skal einn Herra vita, Hvarfyrer? Og trua ongvum of vel.

3. Himenenn er hoar, og Jordenn er diup, Enn Konganna Hiortu eru orannsakanleg.

4. Take Menn Skumed af Silfrenu, þa verdur skiært Kier þar af.

5. Take Menn Ogudlega Breytne fra Kongenum, so verdur hans Hoa-Sæte med Riettlæte stadfest.

6. Vertu ecke skrautsamur hioa Kongenum, Og * gack ecke j Reit þeirra Stooru.

* Luc. 14, 10.

7. Pviad betra er þier ad sagt sie til þijn, Gack upp hingad, helldur enn þu verder nidradur fyrer Hofdingiunum, so ad þijn Augu hlioote þad ad sioa.

8. Vertu ecke frammhleypenn til ad deila, Pvi hvad villtu giora til þa epter a, þegar þu hefur skammad Noaunga þinn?

9. Gior ut þijna Sok vid þinn Noaunga, Og opennbera ecke annars Leyndarmoal.

10. So ad sa tale ecke jlla til þijn er þad heyrer, og alldrei linne þitt illt Rickte.

11. Eitt Ord a sijnum Tijma talad Er sem (b) Gullegt Eple j Silfur Skoal.

(b) (Gull-Eple) Svo sem eru Pomerans og Citron Eple.

12. Hvor eirn Hyggenn Mann oavijtar, þann sem honum hlyder, Pad er lijka sem Gullig Ennis-Spaung, og Gyllene Hoalsband.

13. Lijka sem (c) Kulde Snioafarins um Haustyrkiu Tijmann, so er og trur Sendebode þeim sem hann hefur sendt, og hann nærer Soal sijns Herra.

(c) (Kulde) Trur Þion og Undermadur er ollu Verde betre.

14. Hvor mikid (d) talar og ender ecke Hann er so sem Skij og Vindur Regnlaus.

(d) (Talar) So sem Verölldinn giorir; god Ord, og eckert filger þar epter.

15. Fyrer Polennmæde verdur eirn Herra forlijktur, Og vinsamleg Tunga brytur Hardud.

16. Finnur þu Hunoang so et þijna Nægiu, so þu offyllest ecke, og spyer þvi upp.

17. Vijk þijnum Fæte fra Huse Noaunga þijns, Ellegar moa vel skie þu verder honum Hvimleidur, og grenieſt hann vid þig.

18. Hvor hann talar Lingvitne mot Noaunga sijnum, Sa er eitt (e) Spiot, Sverd og og hvosſ Pijla.

(e) Spiot edur Hamar.

19. Von Forsmoanarans j Neydarinnar Tijma Er so sem fuenn Tonn, og skridnande Footur.

20. Hvor einu Vondu Hiarta (f) kvedur Kvæde, Pad er lijka sem sundur rifed Fat a Vetre, og Edik uppa Salltpetur.

(f) (Kvedur) Pviad hann verdur ecke utan verre og drambsamare þar af, og þad gengur soddan Monnum so sem Menn plaga ad segia, Su Firsta Reidinn er su besta, þviad hann stillist ecki fyrr enn hann kiemur Reidinne framm.

21. * Ef Ovin þinn hungrar, fæd hann med Braude, Pyrste hann, gief honum Vatn ad drecka. * Rom. 12, 20.

22. Pviad þu munt safna Ellds-Glædum yfer Hofud honum, Og DROTTinn mun endurgiallda þier þad.

23. Nordan-Vindur burt rekur Regn, Og sorgleg Asioana leynelegar Tungur.

24. Betra er j eirure Kroa, uppa Husspekium, ad sitia, helldur enn hioa kijfenne Konu til samans ad vera j einu Huse.

25. Gott Rickte af fiarlægu Lande er sem kallt Vatn þyrstre Soalu.

26. Riettloatur Madur, sem fellur fyrer Rangloatum, er so sem saurgadur Vatnsbrunnur, og fordiorfud Uppspretta.

27. Hvor

27. Hvor ofmiked Hunoang etur þad er ei gott, Og hvor þunga Hlute (g) rannsakar honum verdur þad ofþungt.

(g) Hebr. (Raunsakar) Þeirra Vegsemd er ecki Vegsemd.

28. Sa Madur sem ei kann ad hallda sijnum Anda Er lijka sem ein openn Borg án Murveggia.

## XXVI. Capitule.

Virding a ecke vid Heimskingia.

Lijka sem Snioor a Sumre, og Regn a Kornskurdar-Tijma, svo hlyder ecke Heimskum Manne (a) Heidur.

(a) (Heidur) Þad er, Audæfi og Rijkdoomur, og allt þad sem einum er til Heidurs.

2. So sem Fuglenn fer sinn Veg, og Svalann flygur, So koamar ecke oforþient Bolvan.

3. Hestenum hæfer Svipann, og Asnanum Beisled, og Heimskum Manne Vondur a Baked.

4. Svara þu ecke heimskum Manne epter Heimsku sinne, so þu verder honum ecke lijkur.

5. Enn svara Heimskum epter sinne Heimsku, so hann loate sier ei þykia ad hann sie hyggenn.

6. Hvor hann utvegar sitt Erende fyrer eirn (b) heimskann Sendeboda Er lijka sem Fothrumar Madur og lijdur Skada.

(b) Heimsker skulu ei Hygginir vera, enn þo villa þeir iafnann syna sijn Hygginde.

7. Lijka sem Kryplingenum Dansferdenn, So hæfer þeim sem Foavitur er um Vijsdom ad tala.

8. Hvor ed Heimskum Manne Heidur veiter, Þad er lijka sem þa ed nockur kastar Steine uppa (c) Goalgaklettenn.

(c) Hebr. Steina Hrugu.

9. Eitt Spakmæle j Munne Heimskum Manne, er so sem þa Þyrnis-Kvistur stingst j Druckens Manns Hond.

10. Godur Meistar* giorer eirn Hlut riett, Enn hvor ed kauper Verk ad einum Foakunnugum, fyrer honum fordiarfast þad.

11. * Svo sem Hundurenn etur aptur sijna Spyu Svo er Heimskur Madur sa sem fremur aptur sijna Heimsku. * 2 Pet. 2, 22.

12. Þegar þu sier þann nockurn sem hyggenn þykest, þa er meire Von a Heimskum helldur enn a honum.

13. Sa hinn Late seger, Þar er eitt ungt Leon a Veigenum, Og Leon a Brautunum.

14. Eirn Letinge vellter sier j Sænginne, so sem Hurd a Hiorum.

15. Latur Madur hylur Hondina j Pottenum, Og þad veiter honum þungt ad hann bere hana ad Munnenum.

16. Eirn (d) Letinge þykest hyggnare enn Sio adrer, þeir sem læra gooda Sidu.

(d) (Letinge) Þad er, Þeir sem kienna odrum, og dæma adra, og kunna þo sialfer øngvo betur ad giora. Riett leidenligt Folk.

17. Hvor hann fer til og blandar sier vid annarlegar Þrætur Hann er lijkur þeim sem Hundenn dregur a Eyrunum.

18. Lijka sem eirn galenn Madur, sem skytur med Skotum og Pijlum, og deyder,

19. So giorer Falskur Madur vid sinn Noaunga, og seger sijdan, eg giorde ad (e) Gamne mijnu.

(e) (Gamni) Þad er, Bregdest honum sitt æform, þa hefur hann giort ad Gamne sier, og kann fijnlega ad afsaka sig, Enn þad hefde vered honum betra, ad hann hefde ecke villt fared.

20. Þegar Videnn þrytur þa slocknar Elldurenn, Og þegar burt er hinn Bakmoaluge þa hætta Deilurnar.

21. Lijka sem Kolenn Gloodena, og Vidurenn Elldenn, so kveiker þrætusamur Madur upp Deilur.

22. Bakmoalugs Manns Ord eru lijka sem Hogg, Og þau ganga j giegnum Hiartad.

23. Eitradur Munnur, og illt Hiarta, er so sem Pottbrot huled med Silfurfargan.

24. Ovinur verdur af sijnum Ordum kunnur, Pott hann sie j Hiartanu falskur.

25. Pegar hann giorer Rodd sijna Vingiarnlega so tru honum ecke, þviad Sio Svijvirdingar eru j hans Hiarta.

26. Hvor Hatre leyner til ad giora Skada, Pess Illska mun verda opennber Sofnudenum.

27. Sa sem giorer Grofena fellur þar j, Og sa sem Steinenum vellter a þann mun hann koma.

28. Folsk Tunga hatar þann sem hann sarvijtar, Og Hræsnes-Munnur kiemur Fordiorfun af Stad.

## XXVII. Capitule.

Openberleg Strøffun er Nytsamleg; En Heimska er Skadsamleg.

Hroosa * þier ei af þeim Deige sem a Morgun kiemur, þviad þu veitst ei Hvad enn j Dag maa skie. *Jac. 4, 13. 14.

2. * Laattu Annann losa þig, enn ecke þinn Munn, Eirn framande, enn ecke þijnar eigenn Varer. *2 Cor. 10, 15.

3. Grioted er þungt, og Sandurenn er Byrde, Enn Faavijss Manns Reide er þyngre enn þad hvortveggia.

4. Reidenn er aakaflegur Hlutur, og Grimdenn æseleg, Og hvor kann fyrer Ofundenne ad standast?

5. Betre er openber Hyrting enn leyneleg Ast.

6. Hogg Elskarans vilia einum Gott, enn Koss Hatarans er jduglegur.

7. Sodd Ond fottredur eirnenn Hunaangs-Seim, Enn hungradre Ond smackast allt beiskt sætt.

8. Lijka sem sa (a) Fugl er sem vijkur fra sijnu Hreidre, so er sa sem vijkur fra sijnum Stad.

(a) (Fugl) Pad er, Laat þu ongva Freisting reka þig fra þinne Bisalningu, vert stodugur, Gud mun laata vel vegna.

9. Hiartad gledst af Salve og Reykelse, Enn eirn Vinur er aastudlegur fyrer Raads Saker Saalarennar.

10. Yfergief ecke þinn Vin og þijns (b) Fodurs Vin, Og gack ecke j þijns Brodurs Hus þegar þier geingur jlla. Pviad eirn Naagranne, sa j Naand er, hann er betre enn Broder sa j Fiarlægd er.

(b) Ellstu Viner bestu Viner, Annarleger eru opt betre enn Naakomner, Vara þig fyrer Ordum og Daad, an mote Lyge er vel Raad.

11. Vertu hyggenn Son minn! þa gledst Hiarta mitt, So vil eg giefa Svar þeim sem mig smaana.

12. Eirn frammsyn Madur sier Oluckuna fyrer, og leyner sier, Enn þeir sem Faavijser eru hallda aaframm, og lijda Skada.

13. Taktu þess Klæde sem fyrer annann geingur j Borgun, Og pantset þad fyrer Saker hins Framanda.

14. Hvor hann (c) blessar med haarre Roddu Naunga sijnum, og aa illa Rijs, Pad verdur honum fyrer eina Bolvan reiknad.

(c) Pad er, Hvor sem oflastar hann lofar, Og hvor sem oflofar hann lastar, þviad mann truer þeim ecke sem giora of miked af hvoriu fyrer sig.

15. Kijfenn Kona, og jdugleger Dropar, þegar miked Regn er, maa vel hvort odru samlijkiast.

16. Hvor hann helldur henne sa helldur Vindenum, Og vill grijpa um Oleum med Hendenne.

17. Eirn Knijfur hvetur annann, og einn Madur annann.

18. Hvor sitt Fijkiutrie geymer hann neyter Avaxtar þar af, Og hvor hann vaktar sinn Herra hann fær Æru.

19. Lijka sem (d) Skuggenn j Vatnenu er a moote Andlitenu, So er Hiartad Manns sins a moote odrum.

(d) (Skuggenn) Pad er, So sem Skugginn j Vatnenu hrærist, og er ostodugur, so eru og Hiortun; þar fyrer tru ongvum ofvel.

20. Helvijte og Glotun fyllast alldrei, Og Mannanna Augu eru og so osedianleg.

21. Ma-

21. Madurenn verdur reyndur fyrer þess Munn sem hann (e) losar, lijka sem Silfur j Deiglu, og Gull j Ofne.

(e) (Losar) Hvør hann heyrer giarnan sialfs sijns Lof, þad ei hans Riettur, ad hañ verdur a Tœlar dreigenn, þvi hann bevijsar þar med, ad hann er Laussinnadur Madur, þar hann elskar sijna Virding yfer allann Riett framm.

22. Po þu j sundur steyter Fœavijsann Mann j Mortiele med Mylnara, so sem Grion, mun þo ei fra honum hverfa hans Heimska.

23. Gief þu Gaum ad þijnum Saudum, og haf umhyggiu fyrer Hiørdu þinne.

24. Pviad Audæfe vara ecke æfinnlega, og (f) Koronan blijfur ecke æ og jafnan.

(f) (Korona) Þad er, Husbondaskapurenn a Heimelenu edur Stiornan, so sem segde hann, Lœt þier nægia med þad innan Handar er, hier er ecke long Vist.

25. Heyed er uppvaxed, og Grased er fyrer Hende, og Jurternar safnast a Fiollunum.

26. Lombenn klæda þig, og Kidenn giefa þier Akurpeninga.

27. Pu hefur nooga Geitamiolk til Fædslu þijns Heimelis, og til Vidurlijfis þijnum Ambœttum.

## XXVIII. Capitule.

### Um Vonda og Goda Samvitsku.

Ogudlegur Madur (a) flyr, og eingenn elltar hann, Enn Riettlœtur Madur er hugdraustur sem eitt ungt Leon.

(a) (Flyr) Pad er, Sialfs hvørs Samvitska er meire enn Þusund Vitne.

2. Fyrer Synda Saker Landsins verda mørg Umskipte Hofdingstiettanna. Enn Saker þeirra Manna, sem ad eru Vitrer, og Skinsamer, þa eru þeir leinge.

3. Eirn Fœatækur Madur, sa ed giorer Skada vesølum, Er lijka sem œakafa Regn þad Avøxtenn onyter.

4. Þeir sem Logmœled forlœta lofa hinn Ogudlega, Enn þeir sem þad hallda eru mootþycker vid þa.

5. Vonder Menn athuga ecke Riettenn, Enn þeir sem leita DROTTins taka allt til Vara.

6. Fœatækur Madur gangande framm j sijnum Einfalldleik Er betre enn Rijkur Madur sa ed a rongum Veige geingur.

7. Hvør hann vardveiter Logmœled Pad er eitt hygged Barn, Enn hann sem fæder eirn Svelgiara skammar sinn Fodur.

8. Hvør hann eykur sijn Audæfe med Okre, og Asetninge, sa saman dregur þau til Fœatækra Manna Nytsemdar.

9. Hvør Eyra sitt frahverft giører til ad heyra Logmœled Pess Bæn er ein Anstyggd.

10. Hvør hann afvega leider þa Goodu Menn, a Vondann Veg, sa mun detta j sijna Grøf, Enn þeir froomu munu Gotsed erfa.

11. Eirn Rijkur Madur þykest hygginn, enn Fœatækur Madur Skinsamur formerker hann.

12. Nær ed Riettlœter Menn hafa Yfervalld, fer hardla vel framm, Enn þegar Ogudleger upp koma, þa umsnyst þad a medal Følksins.

13. Hvør hann neitar sijnum Misgiørdum þeim mun þad ecke vel vegna, Enn sa sem þær medkienner, og fyrerlætur þær, mun Miskun odlast.

14. Sæll er sa sem alltijd er uggande, Enn sa sem hardsvijradur er mun falla j Olucku.

15. Eirn Ogudlegur, sem stiornar yfer Fœatækum Lyd, Pad er greniande Leon, og hungrad Biarndyr.

16. Nær ed nockur Hofdinge er fyrer utann Skinsemd, þa skie mikel Ranginde, enn hvør Agyrne hatar hann mun leinge lifa.

17. Eirn Madur sa ed Ranginde giører a Blode nockrar Sœalar hann mun ei hiœlpast, þott hann fare allt ofann til Helvijtes.

18. Hvør Einfalldlega framm geingur mun hiœlpast, Enn sa sem a rongum Veige geingur mun eitt Sinn hrapa.

19. Hvør a sijnum Akre Erfidar hefur

Brauds Nægd, Enn sa sem Idiuleysenu ep-terfilger mun hafa noglegann Armood.

20. Trur Madur verdur mikelega blessadur, Enn sa sem flyter sier ad verda rijkur mun ei saklaus blijfa.

21. Manngreinar-Ælit er ecke gott ad hafa, Pviad fyrer Saker eins Braudbita giorer hann lijka jllt.

22. Hvor hann flyter sier til Rijkdoms, og er (b) ofundsiukur, hann veit ei, ad honum skal Olucka mæta.

(b) Hebr. Er sa Madur sem hefur eitt vondt Auga, þad er, giefur ecke fied ad adrer eige nockud.

23. Hvor hann aviijtar nockurn Mann, hann mun epter þad Hylle finna, meir enn hinn sem j Eyrunn fagurt talar.

24. Hvor hann tekur nockud fra Fodur sijnum og Modur, og seger þad vera ongva Synd, Sa er Fielage Fordiarfarans.

25. Dramblaatur Madur kveiker Deilur, Enn sa sem treyster a DROTTENN mun fitna.

26. Hvor hann treyster a sitt Hiarta sa er heimskur, Enn sa sem skinsamlega frammgengur mun umflya.

27. Hvor hann giefur Fataækum hann skal ecke bresta, Enn sa sem sijnum Augum fravijkur, Hann mun miog fordiarfast.

28. Pegar Ogudleger upp rijsa þa leyna sier Mennerner, Enn þegar þeir fyrerfarast þa fiolgar Riettlaata.

# XXIX. Capitule.

Um Illa og goda Stiornan.

Hvor hann er Hardsvijradur, j moote Hyrtingunne, mun voveiflega fyrer utan alla Hialp, fordiarfast.

2. Nær marger eru Riettlaater fagnar folked, Enn þegar sa Ogudlege drottnar Andvarpar Folked.

3. Hvor hann elskar Vijsdom sa gledur sinn Fodur, Enn * sa ed umgeingst med Hoorum sa misser sitt Gots. * Luc. 15, 30.

4. Kongurenn vidrietter Landed fyrer Logenn, Enn sa sem (a) Agiarn er fordiarfar þad.

(a) (Agiarn) Sa sem leggur Skattgialld uppa Landed, Hebr. Sem tekur Giafer.

5. Hvor hann smiadrar vid sinn Naunga Hann leggur Net fyrer hans Gaungu.

6. Pegar jllur Madur syndgar flotrar hann sialfann sig j Snoru, Enn Riettlaatur Madur fagnar og hefur Unadsemd.

7. Hinn Riettlaate kynner sier Maalefne fataæks Manns, Enn hinn Ogudlege acktar ongva Skinsemd.

8. (b) Spottarar færa diarflega Borgena j Olucku, Enn vitrer Menn hepta Reide.

(b) (Spottarar) Þeir sem eru j Raadinu fara opt framingiarnlega afram, ecke þar um skeytande, þo þeir fære eirn Stad, edur Lands-Hofdingia, j Olucku, utaf hvorri þeir kunne ecke ad komast j morg aar.

9. Nær eirn Vitur Madur kiemur til ad honla vid eirn Heimskann, Hvort hann reidest edur hlær, hefur hann ongva Roo.

10. Bloodgiarner Menn hata Einfalldann, Enn hiner Riettlaatu leita hans Saalar.

11. Heimskur Madur utheller olldungis sijnum Anda, Enn hyggenn Madur hiaa sier helldur.

12. Sa Hofdingenn sem Lyst hefur a Lygum, þess Pienarar eru aller Ogudleger.

13. Fataæker og (c) Rijker mæta hvorer odrum, Enn beggia þeirra Augu (d) upplyser DROTTinn.

(c) (Rijker) So kallar hann þa sem Okra kunna, sem Esa. 53, 9, kallar þa Rijku Ogudlega.
(d) (Upplyser) Gledur og giefur Gnægd.

14. Kongur sa sem trulega Riett giorer Fataækum Þess Velldis-Stoll stadfestest ad eylijfu.

15. Vondur og Hirting giefur Hyggende, Enn þad Ungmenne sem sialfraadt er mijnkar sijna Modur.

16. Hvar ad eru marger Ogudrækner þar eru margar Synder, Enn Riettlaater Menn munu aslifa þeirra Hrapan.

17. Aga

17. Aga þu Son þinn, þa mun hann gledia þig, og giøra Hægd Ønd þinne.

18. Þegar þrytur (e) Spaadooma þa villest Folked, og eydest, Enn Sæll er sa sem bijvarar Logmaaled.

(e) (Spaadoma) aaf Guds Ords kunna Menn ecke annad enn ad filgia Afguda-Dijrdkan og sijnum Vilia.

19. Eirn Þræll lætur sier ecke segiast med Ordum, þviad þo hann allt til reidu skilie, tekur hann sier þad ecke til.

20. Sier þu þann Mann sem fliotur er til ad tala, so er betre Von a heimskum Manne enn honum.

21. Nær nockur Þræll er fra Barn-Æsku uppalenn med Epterlæte, so vill hann vera þadan j fra eirn (f) Junkiære.

(f) Hebr. Eirn Son.

22. Reidenn Madur uppvekur Deilur, og grimmur Madur giorer margar Synder.

23. Drambseme Mannsins mun steypa honum, Enn sa hinn Lijtellaate mun faa Heidur.

24. Hvor Hlutskipte hefur med Þiofum heyrer Bølvan, og seiger þar ecke til, hann hatar sitt Lijf.

25. Fyrer Monnunum ad ottast leider til Falls, Enn hvor hann treyster a DRottinn verdur verndadur.

26. Marger leita Auglitis (g) Hofdingians, Enn sier-hvørs eins Domur kiemur fra DROTTne.

(g) (Høfdingians) A Høfdingia Hylle ad treysta, enn Guds, þad er Hiegome.

27. Ranglaatur Madur er fyrer Riettlaatum Andstyggd, og sa sem er Rietts Vegar hann er þess Ogudlega Andstyggd.

## XXX. Capitule.

(I) Agurs Bæn; og (II) Lijfs-Reglur.

I. Þesse eru Ord Agur, Sonar Jake, Kienning og Ræda Mannsins Leithiel, Leithiel og Uchal.

2. Þvi eg em (a) heimskastur allra Mannia, og mannleg Skinseme er ecke med mier.

(a) (Heimskastur) Hygginer Menn vidurkienna, ad þeirra Vijsdomur er einskis verdur, Enn Heimsker laatast allt vita, og meina þeir kunne ei villt ad fara.

3. Eg hefe ecke Vitsku lært, og ei veit eg hvad heilagt er.

4. Hvor uppstijgur j Himenenn og nidurstijgur? Hvor helldur Vindenum j sijnum Høndum? Hvor saman bindur Vøtnenn j eitt Klæde? Hvor hefur sett øll Jardarennar Endemørk? Hvad heiter hann? Og hvad heiter Sonur hans? Veitstu þad?

5. Øll Guds Ord eru gagnhreinsud, og eru Skiølldur fyrer þeim sem a Hann treysta.

6. Auk ecke vid hans Ord Þar, ad hann straffe þig ecke, og verder þu Liugare fundenn.

7. Tveggia Hluta bid eg Þig, ad þu vilier ecke synia mier aadur eg dey.

8. (b) Afgudadijrdkan og Lygar laattu vera langt fra mier, Faatækt og Audæfe gief Þu mier ecke, Enn laattu mig hafa minn deildann Matar Verd.

(b) (Afgudadijrdkan) Þad er, Ein fijn Bæn, Hann bidur um Guds Ord, og daglega Næring, so hann meige lifa bæde hier og annars Heims.

9. Annars kynna eg, nær eg yrde Ofmettur, ad afneita Þier, og segia, Hvor er DROTTinn? Eda ef eg yrde of faatækur, hlyte eg ad stela, og mig a Guds mijns Nafne ad forgrijpa.

II. 10. Forraad ecke Þrælenn vid sinn Laanar-Drottinn, ad hann bølve þier ecke, og hlioter þu ad bera Søkena.

11. Þar er þad Kin sem bølvar sijnum Fødur, og ecke blessar sinne Modur.

12. Eitt Kin sem þykest hreint vera, Og er þo ecke þvegid af sijnum Saur.

13. Eitt Kin sem hæatt ber sijn Augu, og hæatt upp lypter sijnum Augnabraam.

14. Eitt Kin sem hefur Sverd fyrer Tennur, þad sem etur med sijnum Jøxlum, og uppetur þa Aumu j Landenu, og hina Faatæku a medal Lydsins.

15. Bloodsugann hefur tvær Dætur, Laat hingad, Laat hingad.

16. Þrijr Hluter eru O=sedianleger, og hinn fiorde seger ei, þad næger, Helviite, Konunnar tilluckur Kvidur, Jordenn sedst ei af Vatnenu, og Elldurenn seger ecke, þad er noog.

17. Þad Auga sem spottar sinn Fodur, og forsmaaer sijna Modur henne ad hlyda, þad hlioota (c) Hrafnar ut ad kroppa vid Lækenn, og Arnar Ungar ad eta.

(c) Þad kallast ad koma j Galga.

18. Þrijr Hluter þykia mier of undarleger, og hinn fiorda veit eg eige.

19. Arnarennar Vegur j Himnenum, Hoggormsins Vegur a Biargenu, Skipsins Farvegur midt j Hafenu, og Vegur eins Manns til eirnrar (d) Pijku.

(d) (Pijku) Þad er, Aastenn kann ecke hondlast af þonkum, og ecke helldur ut segiast med Ordum.

20. Lijka so er Hoorkonunnar Vegur, hun svelger og þurkar sinn Munn, og seger, Eg hefe ecke neitt jllt giort.

21. Eitt Land verdur oroosamlegt af þremur Hlutum, og hinn fiorda þoler þad ecke.

22. Nær eirn Þræll verdur Kongur, þegar Faavijs Madur er offaddur.

23. Þegar jll Kona verdur tekenn til Hiuskapar, og nær ein Ambaatt verdur Erfinge sinnar Matmodur.

24. Fiorer Hluter eru Smaaer a Jordunne, og þeir eru hyggnum vitrare.

25. Maurenn, eirn veikur Lydur, þo utvega þeir sijna Fædslu um Sunartijmann.

26. Kunisenn, sa veikur Lydur, þo sem aadur setia þeir sitt Hus j Steinunum.

27. Grashoppurnar hafa ongvann Kong, þo ganga þær ut allar j Hoop.

28. Konguloenn vinnur med sijnum Hondum, og er j Konganna Slotum.

29. Þrijr Hluter hafa fijnann Gang, og þad fiorda geingur vel.

30. Leoned Maattugt a medal Dyranna, og snyr fyrer ongvum aptur.

31. Veidehundur med þyckvum Lendum, og eirn Hrutur, og eirn Kongur, j moote hvorium eingenn þorer ad riisa.

32. Hafer þu (e) heimskur vered, og of heatt fared, og nockud vondt Asform hast, so legg þu Hond a Munn þier.

(e) (Heimskur) Skammast þu þijn ei, nær þu j nockru v'llt fared hefur, og forsvara þad ecke, þviad villt ad fara er Mannlegt, enn ad forsvara þad er Diøfullegt.

33. Þegar Menn skaka Miolkena þa gioerest þar af Smior, og hvor hann snyter fast Nasernar hann þvingar þar Blood ut, og hvor hann egner til Reide hann kiemur Deilu af Stad.

# XXXI. Capitule.

(I) Menn ega ad flya og fordast Lauslæte, Ofdryckiu og Rangsleitne; Enn (II) Heidra og Elska Dygdarijka Konu.

I. Þesse eru Ord Lamuels Kongs, su Kienning er Moder hans kiennde honum.

2. Ach minn Utvalde, Ach þu Sonur mijns Lijfs, Ach minn Oska=Sonur!

3. Foa þu ecke Konunum þitt Gots, og gack þu ecke þann Veg sem Kongarner (a) fordiarfast aa.

(a) (Fordiarfast) So sem ad giora þeir ed utreknir verda, drepner eru, eda j annan Maata mijnkunarlega tortijnast.

4. O ecke Kongunum, Lamuel! gief ecke Kongunum Vijn ad drecka, nie sterkann Drick Hofdingiunum.

5. Þeir kynne ad drecka, og gleyma Riettindunum, og umsnua Sok þeirra Aumu nockurs Stadar.

6. Gief þeim sterkann Drick ed aftijfast skulu, og Vijn syrgendum Saalum.

7. So þeir drecke og gleyme Eymd sinne, og hugse ecke framar til sinnar Olucku.

8. Luk upp þinn Munn fyrer Maallausa, og fyrer allra þeirra Skulld sem fyrerlaatner eru.

9. Uppluk þijnum Munne, og dæm Riett, og hefn aumra, og Faatækra.

11, 10. Hvorium, sem vill til ein dygdug Kona, (b) Hun er miked betre enn dyrlegar Perlur.

(b) A Jordunne er eckert castudlegra enn Kvennanna Elska, hvør sem hana kann ad faa.

11. Hiarta hennar Manns maa henne treysta, og Atvinnu mun hann ecke vanta.

12. Hun giorer honum gott, enn ecke vondt alla sijna Lijfdaga.

13. Hun handtlerar Ull og Lijn, og erfidar giarnan med sijnum Hondum.

14. Hun er lijka sem þad Kaupmanns Skip, er sæker sijna Næring j Fiarlægd.

15, Hun stendur upp um Nætur og giefur sijnu Huse Fædslu, og sijnum Amboattum ad eta.

16. Hun hugsar um eirn Akur, og kauper hann, Og plantar eirn Vijngard af sijnum Handa Avexte.

17. Hun (c) gyrder fast sijnar Lendar, Og stirker sijna Armlegge.

(c) (Gyrder) þad er, Hun er jdenn, Þrifnadarsøm j sijnu Huse.

18. Hun smakar hvornenn ad (d) Gagn giøre hennar Sijslan, hennar Skridlioos slocknar ecke a (e) Noottunne.

(d) (Gagn) Hun afstyrer Skada, og sier til hvad abatast kann.

(e) (Noottunne) þad er, J Neydenne hefur hun sijna Naudþurft.

19. Hun rietter sijna Hond til Spunans, Og Fingur hennar fara med Snælldunа.

20. Hun utbreider sijna Hond til Faatækra, og rietter sijna Hond ad Þurftugum.

21. Hun er ohrædd um sitt Hus fyrer Snionum, Þvi allt hennar Hus hefur tvennann Klædnad.

22. Hun giorer sialfre sier Abreidslu, Hvijtt Silke og Purpure er hennar Klædnadur.

23. Nafnfrægur er hennar Madur j Borgarhlidunum, þa hann situr hia Olldungunum Landsins.

24. Hun giorer eirn Kyrtel, og selur hann, Kramaranum giefur hun Bellte.

25. Hennar Pryde er þad, ad hun er hreinferdug, og castundunarsøm, og hier epter mun hun hlæa.

26. Hun lykur upp sinn (f) Munn med Vijsdome, Og a hennar Tungu er heilnæmur Lærdoomur.

(f) Hun vennr Børn sijn og Hiu til Guds Ords.

27. Hun skodar hvornenn ad framm fer j sijnu Huse, Og etur ecke sitt Braud med Jdiuleyse.

28. Syner hennar koma upp, og prijsa hana Sæla vera, Og hennar Madur lofar hana.

29. Margar Dætur samansafna Audæfum, Enn þu ert þeim ollum framar.

30. Lystelegur og fagur ad vera er eckert, Eina Kvinnu sem (g) oottast DROTTJnn skulu Menn lofa.

(g) (Oottast) þad er, Ein Kvinna kann Gudlega og Erlega ad bua vid eirn Mann, og vera hans Kvinna, med goodre Samvitsku, enn hun skal þar ad auk oottast, og tilbidia Gud.

31. Henne mun verda hroosad af Avexte sinna Handa, Og Verk hennar munu lofa hana j Borgarhlidunum.

Hier endar Ordskvidu Salomonis.

# Predikare Salomonis.

## I. Capitule.

Allur Jardneskur Vijsdomur er Eintomur Hegome.

Þetta er Predikarans Ræda, Sonar Davids, Kongsins j Jerusalem.

2. Pad er Alltsaman Olldungis Hiegome, sagde Predikarenn, þad er allt olldungis Hiegome.

3. Hvad hefur Madurenn meira af allre sinne Armædu, sem hann hefur under Soolunne?

4. Ein Ætt forgeingur, Su onnur kiemur. Enn Jordenn blijfur æfenlega.

5. Soolenn geingur upp og nidur, og rennur til sijns Stadar, þad hun kome upp aptur.

6. Vindurenn geingur til Sudurs, og hleypur um kring til Nordurs, og aptur til þess Stadar sem hann uppbyriadest.

7. Oll Votn falla j Siooenn, og þo verdur Siooren ecke fullur, til þess Stadar sem þau jnnfliota fliota þau aptur j burt.

8. Aller (a) Giorningar eru fuller af Armædu, so eingenn kann ad fullsegia þad. Augad sier sig alldri sadt, og Eyrad heyrer sig alldrei sadt.

(a) (Giorningar) Pad er, Eymd og Hiegome a Jordu er meire enn mann kunne ad segia fra, og þo vil eg j þessare Bok þar um tala.

9. Hvad er þad sem skied er? Pad sama sem skie skal hier epter. Hvad er þad sem Madur hefur giort? Pad er lijka sem þad hid sama hvad Madur skal giora hier epter, Og þar skier ecke neitt nytt under Soolunne.

10. Skier þad og nockud, af hvoriu Madur mæ segia, sioa þu, nytt er þad? Pvi þad er og ædur skied j fyrrum Tijdum sem vered hafa fyrer oss.

11. Menn þeinkia ecke, Hvorsu ædur hefur til geinged, so kann Mann og ecke ad hugsa um þad hvad hier epter skiedur a medal þeirra sem epter munu koma.

12. Eg Predikare, var Kongur yfer Israel j Jerusalem.

13. Og eg lagde mitt Hiarta til ad leita epter, og upp grensla med Skinseme, um allt þad sem Menn giora under Himnenum. Soddan Vesæla Armædu hefur Gud giefed Mannanna Bornum, ad þau skulu ploagast þar j.

14. Eg sa til allra þeirra Giorninga sem skie under Soolenne, Og sioa, þad var alltsaman Hiegome og Eymd.

15. Boged kann ecke ad verda riett, og hvad brestur kann ecke ad teliast.

16 Eg sagde j mijnu Hiarta, Sioa, eg em dijrdlegur ordenn, Og hefe meira Vijsdom enn aller þeir sem vered hafa fyrer mier j Jerusalem, og mitt Hiarta hefur miked lært og reynt.

17. Og eg lagde mitt Hiarta og so þar epter ad eg lærde Vijsdom, og Heimsku og Hyggende, og eg fornam, ad soddan var og so Armæda.

18. Pvi þar sem mikell Vijsdomur er, þar er mikel Sorg, Og sa sem miked vill (b) læra hann hlytur margt ad lijda.

(b) Pad er, Ad stiorna Verolldenne.

## II. Capitule.

Allar Jardneskar Vellystingar eru ecke nema Hegome.

Eg sagde j mijnu Hiarta, Nu vel! eg vil lifa med Lyst, og hafa gooda Daga, Enn sioa þu! þad var og eirnenn Hiegoome.

2. Eg sagde til Hlaatursins, Pu ert Galenn, Og til Gledennar, Hvad giorer þu?

3. Pa hugsade eg j mijnu Hiarta, ad draga minn Lijkama fra Vijne, og draga Hiarta mitt til Vijsdoms, so eg kynne ad vita hvad Heim-

Heimskañ være, Þar til ad eg giæte lært, Hvad Mannenum være gott, ad þeir skylldu giora, so leinge þeir lifdu under Himnenum.

4. Eg giorde mikla Hlute, eg biggde upp Hus, plantade Vijngarda.

5. Eg giorde mier Jurtragarda og Lystegarda, og plantade þar j allra handa friosamleg Trie.

6. Eg giorde mier Fiske-Votn, ad vokva þar ut af Skogenn þeirra grænu Trieanna.

7. Eg hafde Præla og Amboatter, og Heimilis Foolk. Eg var Stoor-Audugur af Nautum og Saudum, meir enn aller þeir sem vered hofdu fyrer mier j Jerusalem.

8. Eg safnade mier eirnenn Silfre og Gulle, og liggiande Fiesiood, af Kongunum, og Londonum. Eg skickade mier Saung-Menn og Saung-Kvinnur, og Mannanna (a) Vellysting allshoattud Hliodfære.

(a) (Vellyst) Med Saung og Dansleik.

9. Og eg Megtadest yfer þa alla sem vered hofdu aadur enn eg, j Jerusalem, og Vijsdoomurenn var med mier.

10. Og allt hvad mijn Augu gyrntust þad liet eg þau sia, og eg varnade mijnu Hiarta ongrar Glede, so þad var gladvært af ollu mijnu Arvide. Og þad hiellt eg fyrer mitt Hlutskipte, af ollu mijnu Erfide.

11. Enn sem eg sia til allra minna Verka, sem mijn Hond giort hafde, og til þeirrar Mædu sem eg hafde haft, Sioa þu, þa var þad allt saman Hiegome, og Hormung, og eckert meira under Soolunne.

12. Þa snere eg mier um, til ad skoda Vijsdoom og Speke, og Heimsku (þvi hvør veit hvad sa skal vera fyrer eirn (b) Mann epter Kongenn, sem þeir allareidu giort hafa)?

(b) Þeim leidist sa sem þeir hafa, og þa langar epter þeim sem þeir munu sia, og vita þo ecke Hvørnenn hann mune þeim reynast.

13. Þa sia eg, Vijsdomurenn gieck yfer Faavitskuna, sem Lioseð yfer Mirkred.

14. Og ad Hyggens Manns Augu standa j Hofdenu, Enn Heimskur geingur j Mirkre, og eg merkte þo, ad so geingur einum sem odrum.

15. Þa hugsade eg j mijnu Hiarta, First ad þeim Heimska geingur lijka sem mier, þvi mun eg þa hafa sokt epter Vitskunne? Þa þeinkte eg j mijnu Hiarta, ad soddan var og so Hiegome.

16. Þviad Menn minnast ecke ætijd þess Hyggna, so lijtt sem þess Heimska, og þeir epterkomande Dagar gleyma ollu, og lijka sem sia hinn Hyggne deyr, so og lijka hinn Heimske.

17. Þar fyrer leiddest mier ad lifa, þvi þad hagade mier jlla sem skiede under Soolunne, ad þad er so olldungis Hiegome og Mæda.

18. Og mig angrade allt mitt Erfide, sem eg hafde under Soolunne, Ad eg skyllde epterlaata þad einum Manne sem vera skyllde epter mig.

19. Þvi hvør veit Hvort hann mune verda Hyggenn eda Vitstola? Og hann skal þo raada j ollu mijnu Arvide, sem eg hafde vijslega giort under Soolunne, þad er og Hiegome.

20. Þar fyrer snere eg mier, ad mitt Hiarta skyllde laata af ollu Erfide sem eg giorde under Soolunne.

21. Þviad eirn Madur sem giort hefur sitt Erfide med Vijsdome, Skinseme og Snilld, hann hlytur ad laata annann þad epter sig erfa, sem ecke ueitt þar til erfidade, þad er og eirn Hiegome, og stoor Olucka.

22. Þvi hvad fær Madurenn af ollu sijnu Erfide, og Mædu sijns Hiarta, sem hann hefur under Soolunne?

23. Utan Pijnu, Sorg, og Trega, alla hans Daga? So hans Hiarta hefur ecke Hvijld a Noottunne, þad er og Hiegome.

24. Er þad nu ecke Mannenum betra ad eta og drecka, og ad hans Saal sie glod j hans Erfide? Enn þetta sia eg og so, ad þvijlijkt kiemur af Guds Hende.

25. Þvi hvør hefur gladlegar eted, og endurnært sig, enn eg?

26. Þvi hann giefur þeim Manne Vijsdom, Forstand, og Gladværd, sem honum þocknast, Enn þeim synduga giefur hann Olucku, ad hann safne og samandrage, og þo mun þad giefast þeim sem Gude þocknast, þar fyrer er þad og so Hiegome og Eymd.

## III. Capitule.

Guds Gaafur skal madur bruka j Tijdenne, þviad vier verdum þo Lokfins ad deya.

Aller Hluter hafa sijna Tijma, og allt Aform under Himnenum þad hefur sijna Stund.

2. Tijme er ad fædast, og Tijme er ad deya. Tijme er ad planta, og Tijme er upp ad ræta þad sem plantad er.

3. Tijme er ad deyda, og Tijme er ad græda. Tijme er ad briota nidur, og Tijme er upp ad biggia.

4. Tijme er ad grSata, og Tijme er ad hlæia. Tijme er ad syrgia, og Tijme er ad Dansa.

5. Tijme er Steinum sundur ad dreifa, og Tijme er Steinum saman ad safna. Tijme er ad fadmast, og Tijme er ad vera langt fyrer utan Fadmløg.

6. Tijme er epter ad leita, og Tijme er ad tapa, Tijme er ad hallda, og Tijme er j burt ad kasta.

7. Tijme er ad rijsa j sundur, og Tijme er saman ad sauma. Tijme er ad þeigia, og Tijme er ad tala.

8. Tijme er ad elska, og Tijme er ad hata. Tijme er ad beriast, og Tijme er Frid ad hafa.

9. Madur moa erfida med hvorium Hætte sem hann vill, þo fær hann ei meira til Vegar komed.

10. Þar ut af soa eg þa Mædu sem Gud hafde Mønnønum giefed, ad þeir skylldu kveliast þar j.

11. (Enn hann giorer alla Hlute vel. a (a) sijnum Tijma) og lætur þeirra Hiortu kveliast, Hvørnenn þad mune ganga til j Verolldunne. Þvi Madurenn kann ecke ad hitta uppa þad Verk sem Gud giorer, hvørke Upphaf nie Enda.

(a) (Sijnum Tijma) Þa Tijmenn er enn ecke komenn þa kemur Mann øngvu af Stad, Menn meiga leitast vid, Hvørnenn helst þeir vilia, þa þad a ecke ad verda, þa verdur þar eckert af.

12. Þar fyrer merkte eg, ad ecke neitt er betra þar uti, enn ad vera gladur, og ad giora sier til gooda j Lijfe sijnu.

13. Þvi hvør sa Madur sem etur og dreckur, og er gladur j øllu sijnu Erfide, þad er ein Guds Gaafa.

14. Eg merkte, ad øll Guds Verk blijfa ætijd stødug, Mann kann hvørke ad auka þau nie vana, og Gud verkar þvijlijkt, so Menn skule ottast hann.

15. (b) Hvad Gud giorer, þad stendur þar, og hvad hann vill giora, þad hlytur ad skie, þvi hann leitar þess sem utreked er.

(b) Hvad hann giorer þad stendur, Hvad hann vill þad hefur Frammgang, þad er, hann er ecke Ostødugur, hann skilst ecke vid sitt Verk hálfgiort, helldur filger þvi strax aframm.

16. Jeg soa enn framar meir under Solunne, Domsins Stad, þar var eitt Ogudlegt Athæfe, og Stad Riettlætesins, þar voru Ogudleger.

17. Þa þeinkte eg j mijnu Hiarta, Gud mun dæma bæde hinn Riettlaata og so hinn Rangloata, þvi allt Aform, og aller Giørningar hafa sinn Tijma.

18. Eg sagde j mijnu Hiarta um Athafner Mannanna, j hvorium Gud lætur vita og oasioa, eins og være þeir sijn a medal so sem Fienadur.

19. Þvi Mannenum geingur lijka sem Fienadenum, og so sem þetta deyr, so deyr þad og so, og þad hefur allt einsslags Anda. Og Madurenn hefur ecke þar meira en Fienadurenn, þvi þad er allt Hiegome.

20. Þad fer allt til eins Stadar, þad er allt.

allt saman giort af Dupte, og verdur aptur ad Dupte?

21. Hvor veit, Hvort Mannsins Ande fer upp epter, og Fiœrens Ande nidur epter under Jordena?

22. Þar fyrer sege eg, Eckert er betra enn Madurenn sie gladur j sijnu Arvide, þvi þad er hans Hlutdeilld. Þviad hvor vill fœra hann þangad, so hann kunne ad sioa hvad epter hann mune (c) skie.

(c) (Skie) Þad er, Sorga ecke fyrer Morgundegenum, þvi þu veitst ecke hvad skie mune, lat þier nægia j dag, a Morgun kiemur Dagur og Raad.

# IV. Capitule.

Salomon kenner, Ad hveriu ad Tijmanleg Velgengne se helst Innefalium.

Eg snere mier, og saa til allra þeirra sem Oriett lijda under Soolunne, og sioa, þar var Grœtur þeirra sem Oriettinn lidu, og hofdu þann øngvann sem þa huggade, og þeir sem þeim rangt giordu voru ofmegtuger, so þeir kunnu øngvann Huggara ad hafa.

2. Þa prijsade eg þa enu Daudu, sem alla reidu frammlidner voru, framar enn þa Lifondu, sem enn nu Lijfed hofdu.

3. Og hann sa sem (a) ecke enn er er betre þessum hvorutveggium, og ecke hafde fornumed þad hid Vonda sem skiede under Soolunne.

(a) (Ecke enn) Þad er, Sa sem enn nu ecke lifer j slijkre Ogiœfu.

4. Eg saa uppa Arvide og œstundan j øllum Efnum, þa hatade sa eine þann annann, þad er sannarlega og so Hiegome og Mæda.

5. (b) Þviad eirn heimskur Madur slær sijnum Fingrum samann, og etur sitt Holld.

(b) Kunne eirn nockud, þa er hann hatadur, og sa hann hatar er þo sialfsur einn Daare, sem eckert kann, utan hann plœgar sialfann sig med Hatre, þar fyrer er þad ad Sonnu eitt aumlegt Athæfe a Jordunne.

6. Betre er full Hond med Roo, enn baader Knefar fuller med Sorg og Armædu.

7. Jeg snere mier, og saa Hiegomann under Soolunne.

8. Þar er eirn einsamall Madur, og ecke vid annan Mann, og œtte hvorke Barn nie Brodur, og var þo eingenn Ende a hans Arvide, og hans Augu urdu ecke mett af Rijkdome, Fyrer hvorn arvida eg, og tek fra minne Saal? Þad er þo eirn Hiegome, og vond Mæda.

9. So er miklu betra Tveir enn Eirn, þvi þeir niota þa sijns Arvidis vel.

10. Falle annar þeirra, so hiœlpar hans Stallbroder honum a Fætur. Vei sie þeim sem alleirn er, nær hann dettur þa er þar eingenn annar sem hann uppreiser.

11. Og nær tveir til samans liggia þa vermer hvor annann, Hvorsu mœ einsomlum heitt verda?

12. Eirn mœ yfersallenn verda, enn tveir kunna j mote ad standa, þviad eitt þrefalldt Snære slijtst ecke audvelldlega j sundur.

13. Eitt fœtækt Barn hygged er betra enn gamall Kongur, sa sem er Heimskur, og ecke kann ad vara sig.

14. Eirn kiemur af Fœngelse til Kongsrijkes, og eirn sem fæddur er j sijnu Kongs-Rijke utarmast.

15. Og eg saa alla þa (c) lifondu under Soolunne ganga hiœ einu odru Barne sem uppkoma skyllde j hins Stad,

(c) (Lifondu) Lifande kallar Salomon þa sem lifa j Bijlijfe a Jordunne, so sem j Hofgordum og annarstadar skiedur j Stasse, so sem Lijfed og Verolldenn være þeirra Eign.

16. Og þar var eingenn Ende a þvi Folke sem gieck fyrer, og epter, og feingu þo ongva Glede af honum, þad er og so Hiegome og Eymd.

# V. Capitule.

Salomon kenner, Hversu ad menn ege ad hegda sier, so ad menn gete odlast Tijmanlega Velgengne.

Vakta þinn Foot nær þu geingur til Guds Huss, og kom so þu kunner ad heyra.

Þad

Pad er betra enn Foavijss Manns Offur, þviad þeir vita ecke hvad Vondt þeir giora.

2. Vert ecke fliotur med þijnum Munne, og lœt þitt Hiarta ecke hasta sig ad tala noc⸗kud fyrer Gude. Þviad Gud hann er a Him⸗num, enn þu a Jordu, þar fyrer lœttu þijn Ord vera foa.

3. Þvi, hvar mikel Sorg er þar koma Draumar, og hvar sem morg Ord eru þar heyra Menn Doara.

4. Nær þu giorer Gude eitt Heit, þa tef þu ecke ad efna þad, þvi a Heimskum hefur hann øngva Þocknan. Hvoriu sem þu lofar, þa halltu þad.

5. Betra er, ad þu lofer øngvo, enn ad þu hallder ecke þad þu lofar.

6. Leyf ecke þijnum Munne ad hann afvega leide þitt Holld, og seg ecke fyrer (a) Engle⸗num, eg er (b) saklaus. GUD mætte annars styggiast yfer þinne Raust, og fyrerdæma øll Verk þinna Handa.

(a) Eingell kallast hier Kiennemadur og Lærare.

(b) (Saklaus) Þad er, Forsvara ecke þijna Villu, edur Svik, so sem þeir Lyge⸗Andar og Drauma⸗menn.

7. Hvar ed marger Draumar eru, þar er Hiegome og morg Ord, Enn ottast þu GUD.

8. Ef þu sier, ad þeim Foatæka er giort o⸗riett, og Riettlæted og Rietturenn ryckest j burt ur Landenu, þa undrast ecke þann Aset⸗ning, Þvi þar er enn eirn Hærre Vacktare yfer hoasum, og þo eru enn Hærre yfer þeim boa⸗dum.

9. Par yfer er Kongurenn j øllu Landenu, til ad (c) arvida Akurenn.

(c) (Arvida) Þad er, Hann stiornar øllu, og forbetrar Landid, so eckert fellur af, nie eydest, Hvad ad er eins Kongs Embætte og Nafn.

10. Sa ed elskar Peninga sa verdur all⸗drei saddur af Peningum, og hvør hann elskar Rijkedæmed, hann fær eckert Gagn þar utaf, Þad er eirnenn Hiegome.

11. Þvi hvar miked Gots er þar eru marger sem þad eta, Og hvad Gagn giører þad þeim sem þad hefur, utan hann sier þar uppa med Augunum?

12. Sa sem arvidar honum er Svefnenn sætur, hvort helldur hann etur lijted eda mi⸗ked, Enn Fylle hins Rijka lætur hann ecke sofa.

13. Þad er ein vond Ploaga, sem eg soa un⸗der Solunne, ad hallda Rijkdome sier til Skada sem hann hefur.

14. Þvi sa hinn Rijke fyrerferst med storre Eymd, og þo hann hafe oatt eirn Son, þa helldur hann øngvo j Hendenne.

15. Lijka sem hann kom nakenn fra sinnar Modur Lijfe, so fer hann og j burt aptur sem hann kom, og hann tekur ecke Par j sijna Hond med sier af sijnu Erfide, nær hann j burt fer.

16. Þad er ein vond Ploaga, ad hann fer j burt lijka sem hann kom. Hvad hioalpar ho⸗num þa, ad hann hefur arvidad j Vind?

17. Alla sijna Daga hefur hann eted j Mirkre, Og j stoorre Sorg, og Siukdoome og Hriggd.

18. So lytst mier nu þad gott vera, ad þad sie sijnlegt, nær Mann etur og dreckur, og er gladur j øllu þvi Arvide sem hann giører under Soolunne, um sijna Lijfdaga, af þvi sem GUD giefur honum, Þvi þad er hans Partur.

19. Þvi hvorium þeim Manne sem GUD giefur Rijkdom, og Audæfe, og Valld, til ad eta og drecka þar af, epter sijnu Hlutskipte, og er gladvær j sijnu Erfide, þad er ein Guds Goafa.

20. Þvi hann þeinker ecke miked um þad auma Lijf, þviad GUD gledur hans Hiarta.

## VI. Capitule.

Rijdska velldur þvi, ad hinn Rijke ratar i Neyd og Dauda.

Þad er ein Olucka, sem eg soa under Soolun⸗ne, og er almenneleg a medal Mannanna.

2. Eirn, hvorium GUD giefur Rijkdom, Gots og Heidur, og vantar ecke Par a hvad hans Hiarta lyster, og GUD giefur honum þo ecke Magt til ad neyta þess ens sama, helldur er annar

annar þvi eydande, Pad er Hiegome, og ein vond Plaaga.

3. Og þo einn giæte Hundrad Born, og hefde so langa Lijfdaga ad hann lifde morg aar, og hans Saala yrde alldrei sodd af Audæ, og blife aan (a) Grafar, Um þann sama sege eg, ad Otijmabær Burdur er betre enn hann.

(a) (Grafar) Au hvørs menn vilia giarnann vera, og giøra ecke Virding hans Grefstran.

4. Þvi j Hiegomanum kom hann, og fer j Mirkre j burt, og hans Nafn verdur huled j Mirkrunum.

5. Af Soolunne hefur hann ecke Glede, og ongva Roo veit hann, hvorke hier nie þar.

6. Og þo hann lifde j Tvo Þusund aar, þa hefur hann alldrei neitt gott Gied, Kiemur þad ecke allt j eirn Stad?

7. Hvorium Manne er Erfided uppa lagt, epter sijnum Maata, Enn Hiartad kann ecke þar vid ad vera.

8. Þvi hvad (b) afrekar Hyggenn Madur meir enn Heimskur? Hvad underſtendur hinn Faatæke, ad hann vill vera a medal (c) Lifande Manna?

(b) Þeir eru bæder Heimsker, sa Hyggne og sa Faatæke, Sa Hyggne vill frammkvæma þad med sijne aahyggiu, so meinar og so sa Faatæke, Æ, være eg j þeirre og þeirre Stiett, Hvørsu vel skyllde þad til ganga! ja aptur a Bak.

(c) (Lifande) Þeir sem lifa vel og sæla.

9. Betra er ad neyta þess naalæga Gots enn ad hugsa epter odru, Pad er og so Hiegome og Eymd.

10. Hvad er þad, Hvorsu sem eirn er haatt priisadur, Menn vita þo, ad hann er Madur, og kann ecke ad hallda Prætu vid sier Oflugra.

11. Þvi marger eru hiegomleger Hluter, Hvad hefur Madurenn meira þar ut af?

# VII. Capitule.

Salomon kenner, Hversu ad Einn og Sierhver skule hegda sier, so hann, ad þvi leite sem mogulegt er, mege frelsast fra Margskonar Hegoma i þessum Heime, og þar a mote ødlast þaa Rettu Farsælld.

Þviad hvor veit, Hvad Mañenum er nytsamlegt j Lijfenu, so leinge sem hann lifer j sijnum Hiegoma, hvad j burtu hverfur sem eirn Skugge? Eda hvor vill segia Mannenum, hvad (a) epter hann mune framm koma under Soolunne?

(a) (Epter hann) Hvornenn Verk hans munu luckast, og hvøria Ending þad mune faa.

2. Eitt gott Ricfte er betra enn gott Salve. Og Daudans Dagur helldur enn Fædingar-Dagurenn.

3. *Þad er betra ad ganga j Sorgar-Hus, helldur enn j Dryckiu-Hus, j hinu er allra Manna Endalykt, og hiner lifandu setia þad sier j Hiarta.

* 2 Cor. 7, 10.

4. Betra er ad syrgia enn ad hlæa, Þviad Hiartad forbetrast vid Hriggdena.

5. Vitra Manna Hiortu eru j Sorgar-Husenu, og Heimskra Manna Hiortu j Gledehuse.

6. Betra er ad heyra Avijtan hins Hyggna, helldur eñ ad heyra Lof-Saung hins Heimska.

7. Þviad Faavijss Manns Hlaatur er lijka sem þa Þyrnar snarka under Katle, Og þad er og so Hiegoome.

8. Underþricking giorer Hyggenn Mann galenn, og Gaafur fordiarfa eitt Hiarta.

9. (b) Ender a einum Hlut er betre enn Upphafed. Þolennmodur Ande er betre enn Metnadar-Ande.

(b) (Ender) Þa Endingenn er good þa er allsaman gott, þad er hægt ad upp byria eirn Hlut.

10. Vertu ecke fliotur j þijnu Sinne ad verda Reidur, Þviad Reidenn hvijlest j Hiarta Heimskra.

11. Seg þu ecke, Hvad er þad, ad þeir lidnu Dagar voru betre enn þesser? Þvi sodan er ei vitmannleg Spurn.

12. Vitskann er god med Erfdagotsenu, og hiaalpar til ad eirn kann gledia sig af Soolunne.

13. Þviad so sem Vitskann verndar, so vernda Audæfenn, Enn Vitskann giefur Lijfed þeim hana hefur.

14. Alijttu Guds Giorninga, Pvi hvor kann ad giora þad riett sem hann giører bogeð?

15. Vertu gladur a þeim goodu Dogum, og tak þa hina vondu Daga og til Gooda. Pviad GUD skickar þa hvorn hiaa odrum, so Madurenn skal ecke vita af þvi Hvad epterkomande er.

16. Alls-hattad hefe eg sied j minne Hiegoma Tijd. Þar er eirn Riettlaatur og fyrerferst j sijnu Riettlæte, og þar er eirn Ogudlegur, hvor leinge lifer j sinne Illsku.

17. Vertu eige of-riettlaatur, og eige ofvijs, so þu fordiarfer þig ecke.

18. Vert ecke ofmiog Ogudlegur, og vert ecke Heimskur, so þu ecke deyer j Otijma.

19. Gott er þier ad hondla þetta, enn laata hitt annad ecke sleppa þier ur Hende, Pvi hvor ed ottast GUD sa umflyr þetta allt.

20. Vijsdomurenn styrker þann Vijsa, meir enn Tiju Vollduger j Stadnum.

21. Pvi þar er eingenn Madur a Jordunne sem gott giøre, og ecke syndge.

22. Legg ecke a Hiartad (c) allt þad sagt er, so þu heyrer ei þinn Pion bølva þier.

(c) Menn plaga ad segia, Hvør hann gyrnest ad heyra margt hann heyrer margt þad hann ecke villde.

23. Pvi þitt Hiarta veit, ad þu hefur og so opt odrum bølvad.

24. Allt soddan hef eg med Vitsku reynt, Eg þeinkte, Eg vil verda hyggenn, enn hun kom langt fra mier.

25. Pad er langt j burt, hvad skal þad verda? Og þad er miog diupt, Hvor vill þad finna.

26. Eg snere mijnu Hiarta til ad rannsaka, og ut ad spyria, og ad leita epter Vijsdome og Listum, til ad reyna Heimsku Ogudhræddra, og Villur þeirra Faavijsu.

27. Og eg fann, ad soddan ein Kvinna var beiskare enn Daudenn, hvorrar Hiarta bæde var (d) Net og Snara, og hennar Hendur eitt Band. Hvor Gude þocknast sa kiemur fra henne, Enn sa hinn Synduge skal fangenn verda af henne.

(d) (Net) Pviad Saurlijfe orkar Dauda.

28. Sia þu, Pvilijkt hef eg fundeð, seger Predikarenn, eitt epter annad, so ad eg mætte finna Kunnaattu.

29. Og mijn Saala leitar enn nu, og hefur ecke fundeð þad. A medal Þusunda fann eg eirn Mann, Enn a medal þeirra allra fann eg ongva (e) Kvinnu.

(e) (Kvinnu) Þeir vilia rama þar uppa, og meina þad mune vel luckast.

30. Enn sia þu ad eins, þad hef eg fundeð, ad GUD skapade Mannenn uppriettann, enn þeir leita mikellrar Kunnaattu. Hvor er so hyggenn? Og hvor kann ad utleggia þad?

# VIII. Capitule.

Salomon kenner en framar, Hversu ad Menn gete nad Velgengne i þessu Lijfe.

Mannsins Vijsdomur upplyser hans (a) Andlit, Enn sa sem einardur er hann er ovinsæll.

(a) (Andlit) Hvor sem hefur Illt j Sinne, ellegar hefur þad giørt, hann sier ecke Gladlega nie riett uppa nockurn, sa sem Saklaus er sier ut gladlega og ugglaust.

2. Eg vardveitte Kongsins Ord, og Guds Eid.

3. Flyttu þier ecke ad ganga fra hans Andlite, og vert ecke j vondum Sokum, Pvi hann giører hvad hann lyster.

4. J Kongsins Ordum er Magt, og hvor maa segia til hans, Hvad giører þu?

5. Sa sem helldur Bodordenn hann skal einskis Vonds var verda, Enn eitt vitugt Hiarta veit Tijd og Maata.

6. Pviad allt aaform hefur sijna Tijd og Maata, Pvi margfalldleg er Mannsins Olucka hiaa honum.

7. Pviad hann veit ei hvad vered hefur, Og hvor kann ad segia hvad verda kann?

8. Madurenn hefur ecke Magt yfer Andanum, Andann ad forhindra, og Eingenn hefur Magt a Daudans Tijma, og hann skal ecke laus laatast j Strijdenn, Ogudlegar Athafner hiaalpa ecke þeim Ogudlegu.

9. Þetta hef eg allt saman sied, og eg lagde mitt Hiarta til allrar þeirra Idiu sem skier under Soolunne. Eirn Mann rædur stundum yfer annann sier til Olucku.

10. Og þa soa eg þa enu Ogudræknu sem Jardader voru, hvorier geinged og spacerad hofdu j þeim Heilaga Stad, og þeim var gleymt j Borgenne, þad þeir hofdu so giort, Þad var og eirnenn Hiegoome.

11. Firſt þar kiemur ecke fliotlega eirn Domur yfer vondar Giorder, þar af bliifur Mannsins Hiarta fullt til ad giora jllt.

12. Þo hinn Synduge giore Hundradsinnum jllt, og life þo leinge, Þa veit eg þo lijka vel, ad þeim skal þo ganga vel, sem ottast GUD, og hrædast fyrer hans Auglite.

13. Þviad þeim enu Ogudlegu mun ei vel ganga, og sem eirn Skugge skulu þeir ecke leingur lifa sem ecke ottast GUD.

14. Þad er eirn Hiegome sem a Jordunne skiedur, þar eru Riettloater, þeim geingur so sem þeir hefdu Verk þeirra Ogudlegu, og þar eru Ogudleger, þeim geingur sem hefdu þeir Verk Riettloatra, Eg sagde, Þad er og Hiegome.

15. Þvi priisade eg Gledena, ad Madurenn hefur eckert betra under Soolunne, enn ad eta og drecka, og vera gladur, og ad hann meige slijkt soa af sijnu Arvide alla sijna Lijfdaga, sem Gud giefur honum under Soolunne.

16. Eg gaf mitt Hiarta til ad vita Speke, og ad sioa þa Armædu sem skier a Jordunne, Ad eirn hann soa hvorke Dag nie Nott Svefn med sijnum Augum.

17. Og eg soa alla Guds Giorninga, þviad einn Madur kann þad Verk ecke ad finna sem ad skier under Soolunne, og þess meira sem Madurenn erfidar þar epter ad leita, þess minna finnur hann. Þo hann segde so, Eg em hyggenn, og veit þad, þa fær hann þo ecke (b) funded þad.

(b) (Funded) Hann meinar vel, hann vilie hitta þar uppa, enn þad er allt þar under komed, hvort þad vill luckast.

# IX. Capitule.

*Madur a ad hafna Hegoma, og nema Speke.*

Þvi eg hefe allt soddan lagt uppa Hiartad, ad rannsaka þad allt, Ad þar eru Riettloater og Vijser, og þeirra Undergiefner j Guds Hende, þo þecker eingenn Madur nockurstadar hvorke Kiærleika nie Hatur, sem hann hefur fyrer sier.

2. Þad geingur so einum sem odrum, Riettloatum sem þeim Ogudlegu, þeim Goodu og Hreinu sem þeim Ohreinu, þeim sem offrar sijka sem þeim sem ecke offrar. So sem goodum geingur, so geingur syndugum, so sem Meineidurum geingur, so geingur og þeim sem ottast Eidana.

3. Þad er eirn vondur Hlutur a medal alls þess sem skiedur under Soolunne, ad einum vegnar so sem odrum, þar af verda Hiortu Mannanna full af Vondsku, og Foavitska er j þeirra Hiarta, so leinge þeir lifa, þar epter hliota þeir ad deya.

4. Þviad a medal allra lifande Manna er þad sem Mann æsker, sem er, Vonenn, (þviad eirn lifande Hundur er betre enn eitt daudt Leon.)

5. Þvi þeir (a) Lifondu vita, ad þeir skulu deya, enn hiner Daudu vita ecke par, þeir forþiena og ecke meira, þvi þeirra Minning er gleymd.

(a) (Lifondu) Þad er, Þeir kunna ad bæta sig, og ottast fyrer Daudanum. Enn þeir Daudu finna ecke til neins.

6. So ad Menn elska þa ei framar, nie hata, nie ofunda, og ongva Hlutdeild hafa þeir meir j Verolldunne, af ollu þvi sem skier under Solunne.

7. So far burt, og et þitt Braud med Glede, og dreck þitt Viin med goodu Giede, þvi þijn Verk þocknast Gude.

8. Loat þu þijn Klæde ætijd vera hvijt, og loat þitt Hofud ecke vanta Salve.

9. Bruka þitt Lijf med þinne Kvinnu, sem þu kiæra hefur, so leinge þu hefur þetta foa-

feinga Lijf, sem Gud hefur giefed þier under Soolunne, so leinge sem þitt Fááfeinga Lijf varer. Þviad þad er þinn Partur j Lijfenu, og j þijnu Arvide, þad þu fremur under Soolunne.

10. Allt þad þier fyrer Hendur kiemur ad giora, þa gior þad fvos, þvi j Grofenne, j hvoria þu fer, þa er þar hvorke Verknadur, Hagleike, Hyggende, nie Vijsdomur.

11. Eg snere mier, og sáá hvornenn þad gieck til under Soolunne, til ad hlaupa (b) hiaalpar ecke ad vera fliotur, til Bardaga hiaalpar ecke ad vera sterkur, til Næringar stodar ecke snidugur ad vera, til Rijkdoms hiaalpar ecke Klookur ad vera, ad vera Giedþeckur hiaalpar ecke þad Mann kunne eirn Hlut vel, Helldur er þad alltsaman komed under Tijmanum og Luckunne.

(b) Þad heiter, til Lucku, þo skal mann þar fyrer ecke aflááta, helldur alltijdt taka sier nockud fyrer hendur og bijfala Gudi hvorn Frammgang þad fær.

12. Madurenn veit og ecke sinn Tijma, helldur lijka sem Fiskurenn veidest a skadsomum Aungle, og so sem Fuglenn nærst j Snorunne, so verdur og Mannenum burtkippt a Vondum Tijma, nær hann fellur fliotlega yfer hann.

13. Jeg hefe og þann Vijsdom sied under Soolunne, sem mier þotte mikell vera.

14. Ad þar var eirn lijtell Stadur, og fááttt Fólk jnne, og þar kom eirn mikell Kongur, og setteſt um hann, og biggde stoort Hervirke um hann.

15. Enn þar jnne fannst eirn hyggenn Fáátækur Madur, hvor ed frelsa kunne þann sama Stad med sijnum Vijsdome, og eingenn Madur minnteſt a þann Fáátæka Mann.

16. Þa sagde eg, ad Vitskann er betre enn Sterkleikenn. Þo urdu Hyggende hins Fáátæka forsmaad, og hans Ordum var ecke hlydt.

17. Þvi skier so, ad Hyggens Manns Ord orka meir hiaa Saktmoodigum, helldur enn Herranna Hroop hiaa Heimskum.

18. Þvi Vijsdomurenn er betre enn Harneskia, Enn einasta eirn (c) Skalkur spiller miklu goodu.

(c) Eirn Skalkur fordiarfar stundum heillt Land med sijnum Vondum Raadum.

19. So fordiarfa og skadsamar Flugur gott Salve. Þar fyrer er stundum Heimskann betre enn Vijsdomur, og Æra.

20. Þvi hyggens Manns Hiarta er honum til Hægre Handar, enn Hiarta hins Heimska honum til Vinstre Handar.

21. Og þo hinn Heimske sie Fááviijs j sijnum Giorninge, þa helldur hann þo hvorn Mann fyrer Dáára.

22. Þar fyrer, þegar framm geingur Trass hins Vollduga j moote þijnum Vilia, þa fall ecke j Mistraust, þvi undann ad lááta stiller stoora Olucku.

# X. Capitule.

Salomon talar um Yfervalld og Undergefna.

Þad er ein Olucka, sem eg sáá under Soolunne, sem er, Fáávitska, hvor ad er almenneleg a medal Vollduga.

2. Ad eirn Dááre situr j storre Virdingu, og þeir Rijku sitia laagt nidre.

3. Eg sáá Præla a Hestum, enn Hofdingia ganga sem Præla.

4. En hvor ed Grofena giorer hann mun falla þar j sialfur, og hvor nockurn Gard nidur brytur, þann mun Hoggormurenn stijnga.

5. Hvor Steine ur Stad (a) velltter, hann mun hafa Omak þar med, og hvor ed Tried j sundurklijfur, hann mun meida sig þar af.

(a) (Velltter) Ad giora nya Rijkis Stiorn fer jlla umsijder, þvi Almugenn er oteniandlegur.

6. Nær ed Jaarned verdur slioft, og obrynt a Eggena, so hlytur Madur ad hvessa þad aptur med Vallde, so filger og Vijsdomur epter Jdnena.

7. Eirn Baktaall Madur er ecke betre enn Hoggormur, sáá ed osærdur stijngur.

8 Ord af Munne eins Hyggens Manns eru liufleg, enn hins fááviijsa Varer svelgia hann.

9. Hans

9. Hans Orda Upphaf er Fifl≈ka, og Endenn er ≈kadsom Heimska.

10. Eirn Afglape hefur mørg Ord, þvi Madur (b) veit ecke hvad vered hefur, og hver vill segia honum hvad ≈kie ≈kal epter hann?

(b) (Veit ecke) Hann hugsar ecke um, Hvørnenn þad hefur geinged ødrum fyrre, hann fer aframm, og veit þo ecke hvornenn þad mune ganga.

11. Arvide Heimskra verdur þeim þungt, af þvi Menn kunna ecke ad ganga j Stadenn.

12. Vei þier Land! hvørs Kongur ad er eitt Barn, og hvørs Hofdingiar ad snemma matast.

13. Hepped ertu Land! hvørs Kongur er gøfugur, og Hofdingiarner neyta siins Matar j hæfelegann Tijma, til Stirkingar, enn ei til Lystingar.

14. Þviad fyrer Lete saker siiga nidur Bialkarner, og fyrer forsømunarsamar Hendur lekur Hused.

15. Og þvi ≈kier soddan, ad þeir giora Brauded til Hlæaturs, og Viined hlytur ad gledia þa (c) Lifondu, og Peningurenn kiemur ollu af ≈tad fyrer þeim.

(c) (Lifendu) Þad er, Þeir sem lifa j Rutse, og tæra j Lystesemе.

16. Formælltu ecke Kongenum j þijnu Hiarta, og bølva ecke Rijkum j þijnu Svefnhuse, þvi Fuglar Himensins bera Raustena, og þeir sem hafa Vængena segia epter.

## XI. Capitule.

Salomon rædur til Godvikne og Ørlætes vid Fatæka; og ad hugsa til þess Siidarsta Domsdags.

Lættu þitt Braud (a) fara yfer Vatned, so muntu finna þad longu seirna.

(a) (Fara) Þad er, Gief þu Rijflega hvad þu formaallt, hvørium Manne, þviad fa Tijme mea koma, ad þu giæter giarnan, og muntu þa ecke gieta.

2. Skipt ut a medal Sio, og a medal Aatta, þvi þu veitst ei Hvør Ohamingia koma kann a Jordena.

3. Nær Skijenn eru full þa giefa þau Regn yfer Jordena, og nær ed Eikenn fellur, hvørt hun fellur til Sudurs, eda Nordurs, j hvørn Stad hun fellur, þa mun hun liggia.

4. Hvør hann giæter ad Vedrenu hann saaer ecke, og hvør ed acktar Skijenn hann upp≈kier ecke.

5. * Lijka sem þu veitst ei Veg Vindarens, og hvornenn Beinenn tilbuenn verda i Modurlijfenu, so kanntu ecke helldur (b) vita Guds Giorninga, hvøria hann verkar j ollum Hlutum. * Joh. 3, 8.

(b) (Vita) Þvi þad Okomna er allt duled fyrer oss, þar fyrer hliota Menn ad leggia j Vogun alla Hlute j þessu Lijkamligu Lijfe.

6. Saadu þijnu Sæde aarla, og hætte þijn Hond ecke ad Kvølldenu, þvi þu veitst ecke, hvørt luckast mune þad eda annad, og þo ad hvørtveggia luckadest þa er þad þess betra.

7. Liosed er sætt, og þad er Augunum lystelegt ad siaa Soolena.

8. Nær eirn Madur lifer leinge, og er gladur j ollum Hlutum, þa þeinker hann alleina a þa jllu Dagana, ad þeir so marger eru, þvi Allt þad hann hender þad er Hiegome.

## XII. Capitule.

Inntak allrar Sannrar Speke i Heimenum er (þetta;) Ottastu Gud, og halllt hans Bodord!

So gled þig Ungmenne j þinne Æsku, og lææt þitt Hiarta vera gladt a þinne Æsku, Giør hvad þitt Hiarta lyster, og hvad þijnum Augum þocknast, og vit þad, ad Gud mun færa þig til Domsins fyrer allt þetta.

2. Lættu Sorgena ut ur þijnu Hiarta, og tak þad hid Vonda fra þijnu Lijfe, þvi Barnæ≈kann og Ungdomurenn er Hiegome.

3. Minnst þu a þinn Skapara j þijnum Ungdome, ædur enn þeir Vondu Dagarner koma, og æarenn nealgast, ad þu seiger, Þau þocknast mier ecke.

4. Adur enn Soolenn og Liosed, Tungled og

og Stiornurnar verda Mirkvar, og Skijenn koma aptur epter Regned.

5. A (a) þeirre Tijd þa Vaktararner j Husenu skialfa, og þeir sterku verda ad beygia sig, og Mylnurnar standa toomar, af þvi þær eru ordnar so faaar, og Synenn er mirk j giegnum Gluggana.

(a) Med þessum Kienningar-Ordum utmaalar hann Elle Mannsins, þegar Hendur skialfa, Beininn bogna, Augum sliofgast Syn, Tennurnar vilia ecke mala, Haared graanar, Herdarnar beygia sig, Eyrunn haanga og verda Dauf.

6. Og Dyrnar a Strætunum blijfa tilluktar, og Raust Mylnukvinnunnar er lijtel, og hun uppvaknar nær Fuglenn syngur, og allar Dætur Saungsins beygia sig.

7. So ad þeir hraasu eirnenn vottast og hrædast a Veigenum, nær Mandeltried blomgast, og Grashoppurnar þyngiast, og oll Lystingenn forgeingur (þviad Madurenn fer þangad sem hann verdur æfenlega, Og Syrgendurner ganga um kring a Strætunum).

8. Adur enn Silfur-Snurann j burt kiemur, og su Gull-uppsprettann framm hleypur, og þær Vatnsskiolurnar leka hia Brunnenum, og Hiolenn j sundur brotna yfer Brunnenum.

9. Þviad Dupted hlytur ad koma til Jardarennar aptur, so sem þad hefur vered, og Andenn til Guds aptur sem hann gaf.

10. Þad er allt saman olldungis Hiegome, sagde Predikarenn, olldungis Hiegome.

11. Þesse same Predikare var ecke alleinasta hyggenn, helldur kiennde hann og so Folkenu godar Kienningar, og hann athugade, og rannsakade, og samsette morg Spakmæle.

12. Hann leitade vid, ad hann giæte funded þacknæmeleg Ord, og skrifade riett Ord Sannleiksins.

13. Þesse Ord hins Vijsa eru Spiot og Naglar, skrifud af Meistara Safnadarins, og ut giefenn af einum Hyrder.

14. Vara þig minn Son! fyrer odrum fleyrum, þvi þar er eingenn Ending a þvi ad giora margar Bækur, og mikel Predikun giorer Lijkamann Þreyttann.

15. Loatum oss heyra Hofud-Summu alls Lærdoomsins. Ottast GUD, og hallt hans Bodord, þvi þad hlyder til ollum Monnum.

16. Þviad * GUD mun alla Giorninga frammleida fyrer Domenn, þa sem eru folgner, hvort sem þeir eru helldur Gooder, edur Iller.

* Rom. 14, 10. 2 Cor. 5, 10.

Ender Salomonis Predikara.

# Lofkvæde Salomonis.

## I. Capitule.

Um Guds Brude, sem er Guds Kyrkia, hversu hun gyrnest og þreyer epter sijnum Brudguma, sem er Messias.

2. Hann kysse mig med Kosse sijns Munns, Þviad þijn Briost eru lystelegre enn Vijn.

3. So ad Menn luckte þitt gooda Salve, Þitt Nafn er eitt uthellt Salve, Þar fyrer elska þig Ynges-Meyarnar.

4. Drag mig epter þier, þa hlaupum vid. Kongurenn færde mig j sitt Herberge. Vier fagnum og glediumst yfer þier, Vier þeinkium meir til þinna Briosta, helldur enn til Vijns, Þeir enu Goodu elska þig.

5. Eg er dock, Enn þo miog lysteleg, Þier Dætur Jerusalem! so sem Tialldbudernar Kedar, og so sem Vefnadartiolld Salomonis.

6. Horfed

6. Horfed ecke a mig, ad eg er so dock, þviad Solenn hefur brennt mig so, Born minnar Modur eru mier reid, Menn hafa sett mig, ad eg skyllde verda Geymslu-Kona Vijngardsins, Enn eg geymde ecke minn Vijngard þann eg hafde.

7. Laattu mig vita hvorn mijn Saala elskar, hvar þu fæder, hvar þu hvijler um Middagenn, So eg gange ecke hingad og þangad, hia Hiordum þinna Stallbrædra.

8. Þecker þu þig ecke, þu hin fegursta a medal Kvenna, so gacktu a Sandanna Footspor, og fæd þijna Hafra hia Husum Hiardanna.

9. Eg jafna þier mijn Kiærasta! vid mijn Reisu Tye a Pharaonis Vognum.

10. Þijn Kinnbein standa lystelega, j Spongonum, og þinn Hals j Kiedionum.

11. Vier viljum giora þier gylltar Spanger, med Silfur Doppum.

12. Þa Kongurenn snere sier hingad gaf minn Nardus sinn Ilm.

13. Minn Vin er mier eitt Myrru-Byndene, hangande a millum minna Briosta.

14. Minn Vin er mier ein Prugna Chopher j Vijngardenum til Engeddi.

15. Sioa mijn Kiærasta! þu ert fogur, fogur ert þu, þijn Augu eru sem Dufu Augu.

16. Sioa minn Vin! þu ert fagur og Dæilegur, Vor Sæng er græn.

17. Vorer Hußbitar eru af Cedrus, og vorar Sperrur af Cypressus.

## II. Capitule.

Um Inbyrdes Kiærleika og ꜳst Brudgumans og Brudarennar.

Eg er eitt (a) Blomstur j Saron, og ein (b) Roosa j Dalnum.

(a) Hebr. Rosa.
(b) Hebr. Lilia.

2. So sem ein Roos a medal Þyrnanna, so er mijn Kiærasta a medal Dætranna.

3. Lijka sem eitt Eplis-Trie a mille Ville-Trianna, so er minn Vin a medal Sonanna. Eg sit under hans Skugga sem mig gyrner, og hans Avoxtur er sætur mijnum Barka.

4. Hann leidde mig j Vijnkiallarann, og Kiærleikurenn er hans Merke yfer mier.

5. Hann lijfgade mig med (c) Blomstrum, og nærde mig med Eplum, Þvi eg er siuk af Astenne.

(c) Hebr. Floskunum.

6. Hans Vinstre Hond liggur under mijnu Hofde, og hans Hægre Hond umfadmar mig.

7. Eg sære ydur þier Dætur Jerusalem! vid Raadyr, eda Hindur a Morkenne, ad þier hvorke uppveked nie (d) hræred vid mijna Kiærustu, þangad til hun sialf vill.

(d) Hebr. Edur komed minne Vinleigustu til ad vera vakande.

8. Þar er Rodd mijns Vinar, Sioa þu, Hann kiemur og stockur a Fiollunum, og stediar a Hædunum.

9. Minn Vin er lijka sem Raadyr, eda ungur Hiortur. Sioa þu, hann stendur a Bak vid vorn Vegg, og sier j giegnum Gluggann, og giægest j giegnum Grindurnar.

10. Minn Vinur svarar, og seger til mijn, Statt upp mijn Kiærasta, mijn en dæilega, og kom hingad!

11. Þvi sioa þu, Veturenn er lidenn, Regned er af og j burt.

12. Bloomsturenn eru upp komenn j Landenu (e) Vored er komed, og Turtildufann lætur sig heyra j voru Lande.

(e) Songtijdenn er komenn.

13. Fijkiu-Tried hefur Knappana feinged, Vijn-Trien standa j Blomstre, og giefa sinn Ilm, Stattu upp mijn Kiærasta, og kom, mijn hin prydelega, kom hingad!

14. Mijn Dufa j (f) Steinholunum j Biargskorunum, Syn mier þijna Asynd, Laat mig heyra þijna Raust, Þvi þijn Rodd er sæt, og þitt Auglit er lystelegt.

(f) Hebr. J Skiolenu uppa Troppunum.

15. Naaed fyrer oß Refunum, Þeim Smaa-

Smaa-Refum, þeim sem fordiarfa Vijngardana, Þvi vorer Vijngardar bloomgast.

16. Minn Vinur er minn, og eg em hans, hann hvor ed til Haga helldur under Roosum.

17. Þar til Dagurenn kolnar, og Skuggenn burt lijdur. Snu þu aptur, og vert sem eitt Raadyr, minn Vin, eda sem ungur Hiortur a Adskilnadar Fiollum.

## III. Capitule.

Brudgumenn er Høfud og Herra sinnar Brudar.

Eg leitade um Nottena j minne Sæng epter honum sem mijna Saal elskar, eg leitade, enn eg fann hann ecke.

2. Eg vil standa upp og ganga um kring j Stadnum, a Gøtunum og Strætunum, og leita epter þeim sem mijn Saal elskar. Eg leitade, enn eg fann hann ecke.

3. Vacktararner sem geingu j kring j Stadnum, fundu mig. Hafed þier ecke sied þann sem mijn Saala elskar?

4. Þa eg var skammt framm hiaa komenn, þa fann eg þann sem mijn Saal elskar. Eg hiellt hønum, og villde ecke sleppa hønum, þar til ad eg leidde hann j minnar Modur Hus, j minnar Modur Herberge.

5. Eg sære ydur þier Dætur Jerusalem, vid Raadyrenn, edur Hindurnar a Mørkenne, ad þier hvorke uppvekied, nie (a) hræred mijna Kiærustu, þar til hana sialfa lyster.

(a) Hebr. Edur komed minne Unnustu til ad vera vakande.

6. Hvør er hann sem upp geingur af Eydemørkenne, sem eirn (b) sliettur Reykur, so sem Jlmur af Myrru, Reykelse, og allrahanda Pulver Apotekarans?

(b) Hebr. So sem Stolpe af Reyk sem reyktur er af Myrru.

7. Sia, J kringum Salomonis Sæng standa Sextijger sterker, af þeim sterku j Jsrael.

8. Þeir hafa aller Sverd, og eru skickader til Bardaga, Hvør hefur sitt Sverd a sinne Sijdu, sokum Nætur-Ottans.

9. Salomon Kongur liet giora eirn Sal af Libanus Vide.

10. Hans Stoolpar voru af (c) Silfre, enn Riaafred af Gulle, (d) Sæted af Purpura, (e) Golfed j midiunne var lystelega lagt med Steinum, fyrer Saker Dætra Jerusalem.

(c) Hebr. Botnenn.

(d) Hebr. Sparløkenn.

(e) Hebr. Þar j Midiunni var lagt med Elsku.

11. Þier Dætur Zion! ganged ut, og siaed Salomon Kong med þeirre Koronu sem hans Moder Koronade hann med, a hans Brullaups Deige, og a Gladværdar Deige hans Hiarta.

## IV. Capitule.

Fegurd og Frijdleika Brudarennar er hrosad.

Sia þu, Mijn Unnusta! þu ert føgur, Sia, føgur ert þu! Þijn Augu eru sem Dufu Augu a millum þinna (a) Locka. Þitt Haar er lijka sem Geita-Hiørd, su sem klippt er a Fialle Gilead.

(a) (Locka) Hann meinar Haarlocka, hvørier epter natturlegre og gamallri Vijsu, þa þeir eru ecke fliettader, helldur utslegner a Baked, þa fara þeir Kvennfolkenu hardla vel, þa þad er þyckleitt, og med raudar Kinnar, og Haarid hanger nidur a baadar Sijdur nidur, um Eyrunn og Axlernar.

2. Þijnar Tennur eru sem ein Hiørd med klipptre Ullu, komande fra Sund-Laugenne, verande allar saman Tvijlembdar, og þar er eingenn Ofriosøm a medal þeirra.

3. Þijnar Varer eru sem Dreir-raudur Dreigell, og þitt Maal er lystelegt. Þijnar Kinnur eru sem Rispur a Granata-Eple, a millum þinna Locka.

4. Þinn Haals er so sem Davids Turn, bygdur med Vijgskordum, a hvørium ad

hanga

hanga Þusund Skyllder, og allsfins Vopn þeirra Sterku.

5. Þijn tvo Brioſt eru þvijlijkaſt ſem tveir unger Roadyrs Tvijburar, ſem fædaſt under Rooſunum.

6. Allt þar til ad Dagurenn kolnar, og Skuggenn burt lijdur. Eg vil fara til Myrru-Fiallſins, og til Reykelſis-Hædanna.

7. Mijn Unnuſta! * Þu ert dæleg j allann Maata, og þar er eingenn Fleckur a þier.
* Eph. 5, 27.

8. Kom mijn Brudur! af Libanon, kom af Libanon. Gack hier jnn, ſtijghingad af Amana Hædum, af Hædum Senir, og Hermon, fra Buſtad Leonanna, fra Leopardanna Fiollum.

9. Þu hefur fangad mitt Hiarta mijn Syſter, elſkuleg Brudur! med einu þijnu Auga, og med eirnre þinne Hoals Kiediu.

10. Hvørſu fogur eru þijn Brioſt, mijn Syſter, Elſku Brudur! Þijn Brioſt eru elſkulegre enn Vijn, og þinn Smyrſla Ilmur yfer-geingur allar Jurter.

11. Þijnar Varer, Mijn Brudur! eru ſem drijpande Hunangs-Seimur, Hunang og Miolk er under þinne Tungu, og Ilmur af Klædum þijnum er ſo ſem Ilmur Libanon.

12. * Mijn Syſter! Kiæra Brudur! þu ert einn læſtur Alldingardur, ein tilluckt Uppſpretta, eirn jnnſigladur Brunnur.
* Joh. 3, 29. 2 Cor. 11, 2. Opinber: B: 21, 9.

13. Þinn Avoxtur er lijka ſem lyſtugur Alldingardur af Granata-Eplum, med goſugum Avoxtum, Cyperen med Nardus.

14. Nardus med Safran, Kalmus og Cynamen, og allra-handa Reykelſis Trie, Myrra og Aloes, med ollum beſtum Jurtum.

15. Sem eirn Alldingards-Brunnur, ſem eirn Brunnur Lifanda Vatns, ſa er flytur af Libanon.

16. Rijs upp Nordan-Vindur, og kom Sunnan-Vindur, og bloaſtu j giegnum minn Alldingard, ſo ad af hans Jurtrum driupe!

# V. Capitule.

Her ſeger fraa Brudgumanum, hverſu ad hann ſe aaſtudlegur og þægelegur.

Minn Vin kome hann j ſinn Alldingard, og neyte af hans edla Avoxtum.

Cap. V. 1. Eg kom, mijn Syſter, Kiæra Brudur! j minn Alldingard, Eg hefe afbroted mijna Myrru med mijnum Jurtrum, Eg hefe eted minn Hunangs-Seim med mijnu Hunange, eg hefe drucked mitt Vijn med minne Miolk. Eted mijner Elſkuleger, og drecked mijner Viner, og verded druckner.

2. Eg ſef, enn mitt Hiarta vaker, Þar er mijns Vinar Rauſt, ſem þar ber. Loat upp fyrer mier Mijn allra Kiæraſta, mijn Syſter, mijn Dufa, mijn Innelega! Þvi ad mitt Høfud er fullt af Dogg, og mijner Lockar eru fuller af Naattdropum.

3. Eg hefe fært mig af mijnum Kyrtle, hvørnenn ſkal eg færa mig j hann aptur? Eg hefe þvegeð mijnar Fætur, Hvørnenn ſkal eg giøra þa oklaara aptur?

4. Enn minn Vin ſtack ſinne Hende j giegnum eitt Hol, og minn Lijkame ſkalf þar vid.

5. Þa ſtood eg upp ad luka upp fyrer mijnum Vin, Myrrann draup af mijnum Høndum, og Myrrann flaut um mijnar Fingur, a Loas-Lokunne.

6. Og þa eg hafde upploated fyrer mijnum Vin var hann j burtu, og af Stad geingenn. Þa gieck mijn Soala ut, epter hans Ordum, Eg leitade ad hønum, enn eg fann hann ecke, Eg kallade, enn hann ſvarade mier ecke.

7. Vacktararner sem geingu um Staden̄ þeir fundu mig, sloou mig Soarum, Vacktararner a Murnum tooku mijna Yferhøfn fra mier.

8. Eg sære ydur þier Dætur Jerusalem, ef þier finned minn Vin, þa seged honum ad eg ligg siuk af Elsku.

9. Hvad er þinn Vinur framar enn adrer Viner? O þu en Fegursta a medal Kvennanna! Hvad er þinn Vinur framar odrum, ad þu hefur so sært oss?

10. Minn Vinur er hvijtur og raudur, útvalenn a medal margra Þusunda.

11. Hans Hofud er besta Gull, Hans Lockar hrøckva, Svarter sem Hrafn.

12. Hans Augu eru sem Dufu Augu hioa Vatnslækium, þveigenn j Mioolk, og standa j (a) j Fyllingu.

(a) (Fyllingu) Þad er, Kringluleitt Andlit, og Augunn ecke blicknud nie hruckud.

13. Hans Kinnar eru sem vaxande (b) Jurtragardur Apotekarans. Hans Varer eru sem Roos, sem drypur af rennande Myrra.

(b) Hebr. So sem dyrlegra Jurta Bloomstur.

14. Hans Hendur eru lijka sem Gullhringar hladner med Turckose. Hans Lijkame er sem hreint Fijlabein, prydt med Saphir.

15. Hans Bein eru sem Marmara-Stolpar, grunduallader a Gullfootum, Hans Mind er sem Libanon, utvalenn sem Cedrus-Trie.

16. Hans Barke er sætur og allur elskulegur. Slijkur er minn Vinur, minn Vinur er slijkur, þier Dætur Jerusalem!

## VI. Capitule.

Brudgumenn seger fra sinne Brude.

Hvort er þa þinn Vinur geingenn? O þu hin Fegursta a medal Kvennanna! Hvort hefur þinn Vinur viked sier? So vilium vier leita med þier ad honum.

2. Minn Vinur er ofan geingenn j sinn Alldingard, j Jurtragardenn, ad hann fædde sig j Gardenum, og briote Roosernar.

3. Minn Vinur er minn, og eg em hans, hann sem sig fæder a medal Roosanna.

4. Þu ert fogur, Mijn Unnusta! sem Thirza, lysteleg sem Jerusalem, ogurleg sem Briost-Fylkingar.

5. (Snu þu þijnum Augum fra mier, Þvi þau giora mig Brennande) Þitt Hoar er lijka sem Geit-Sauda Hiord, sem klippt er a Fialle Gilead.

6. Þijnar Tennur eru lijka sem Sauda-Hiord, sem kemur af Sunde, verande allar Tvijlembdar, og þar er eingenn ofriossom a medal þeirra.

7. Þijn Kinnbein eru lijka sem Rispur a Granata Eple, a medal þinna Locka.

8. Sextiju eru Drottningarnar, og aattatygu Frillurnar, enn a Ungum Meyum er eingenn Tala.

9. Enn ein er mijn Dufa, mijn Innelega, ein er sinnar Modur en kiærasta, og sinnar Modur en utvalda. Og þa Dæturnar sau hana sogdu þær hana Sæla, og Drottningarnar med Frillunum lofudu hana.

10. Hvor er su sem framm kiemur sem Morgun-Stiarna? Fogur sem Tungl? Utvalenn sem Sool? Ognarleg sem Briost-Fylkingar.

11. Eg em ofan geingenn j Hnota-Gardenn, ad skoda Greinernar hioa Lækiunum, ad skoda Hvort ad Vijntrien bloomgast, hvort ad Granata-Eplenn grænka.

12. Mijn Soal visse ecke, ad hann hafde sett mig til Vagna Ami-Nadabs.

13. Snu aptur, snu aptur, O Sulamith! snu þu aptur, snu þu aptur, so ad vier meigum

meigum skoda þig. Hvad sioaed þier a Sulamith, nema Dans j Mahanaim?

## VII. Capitule.

(I) Ræda Brudgumans um Brudena. (II) Ræda Brudarennar um Brudgumann.

I. Hvorsu fagur er þinn Gangur j Skoonum, þu Hofdingians-Dotter! Þijnar Lendar standa jafnt hvor hioa annare, lijka sem Tvær Speingur, þær eins Meistara Hond hefur giort.

2. Þinn Nafle er sem Kringloottur Bikar, hvorn ad alldrei vantar Dryck. Þinn Kvidur er sem Hveite-Hruga, j kring settur med Lilium.

3. Þijn Tvo Briost eru sem Tveir unger Roadyrs Tvijburar.

4. Þinn Hcals er sem eirn Turn af Fijlabeine. Þijn Augu eru sem Fiske-Votn j j Hesbon hioa Bathrabbim Porte. Þijnar Naser eru sem Turnenn a Libanon, sem horfer moot Damasco.

5. Þitt Hofud stendur a þier so sem Carmelus. Haared a þijnu Hofde er sem Kongsins Purpure, bundenn j Ferder.

6. Hvorsu fogur og elskuleg ertu, mijn Kiærasta, j Sælusemu!

7. Þijn Leingd er lijk Palma-Trie, og þijn Briost Vijnþrugum.

8. Eg sagde, Eg hlyt ad uppstijga a Palma-Tried, Og taka þess Kvistu, Laat þijn Briost vera sem Vijnþrugur a Vijn-Vidar Trioam, og þinna Nasa Lyckt sem Eple.

9. Og þinn Barka lijka sem gott Vijn, hvort ed gladlega nidur rennur mijnum Vin, og (a) talar oaleingdar.

(a) Hebr. Og kiemur þeim sofande Vorum til ad tala.

II. 10. Minn Vin er minn, og hann helldur sier og so til mijn.

11. Kom minn Vin! vid vilium ganga ut a Morkena, og vera a Þorpunum.

12. So ad vid meigum oarla upp standa til Vijngardanna, so vid mættum skoda Hvort Vijn-Trien bloomgast, og hafa feinged Augunn, og hvort Granata Epla-Trien hafa utsleiged sier, Þar vil eg giefa þier mijn Briost.

13. (b) Liliurnar giefa þar Ilm, og þar er allra-handa Gofugur Avoxtur fyrer ockar Dyrum, Minn Vin, eg hefe geymt handa þier bæde nyann og gamlann Avoxt.

(b) Hebr. Dudaim.

## VIII. Capitule.

Seinasta Samtal (I) Brudarennar, og (II) Brudgumans.

I. Oh! ad eg mætte finna þig þar ute, minn Broder! sem ad sogur minnar Modur Briost, og eg mætte kyssa þig, so eingenn hædde mig!

2. Eg vil taka þig, og leida þig j minnar Modur Hus, þar þu skyllder kienna mier, Þar villde eg giefa þier ad drecka, af giordu Vijne, og af Muste minna Granata-Epla.

3. Hans Vinstre Hond liggur under mijnu Hofde, og hans Hægre Hond fadmar mig.

4. Eg sære ydur þier Dætur Jerusalem! ad þier hvorke uppvekied, nie (a) hræred vid mijna Unnustu, þar til hana sioalfa lyster.

(a) Komid ecki minne Elskulegustu til ad vera vakande.

5. Hvor er su, sem upp fer af Eydemorku, og stydst vid sinn Vin? Under Epla-Trienu uppvakte eg þig, (b) þar þijn Moder hafde fædt þig, þar sem hun loa med þier, hun sem hafde upp aled þig.

(b) Þar fædde þijn Mooder þig, þar fædde hun sem þig fædde.

6. Settu mig a þitt Hiarta sem eitt Innsigle, og uppa þinn Arm sem annad Innsigle,

sigle, Pvi Elskann er so sterk sem Daude, og Vandlæted so fast sem Helvijte, þess Glædur eru brennande, og eirn (c) Ellds-Loge DROTTins.

(c) (Ellds-Loge) Af þessum Ordum maa merkia, ad Salomon syngur j þessu Lofkvæde um Andlega ast og Elsku, hvøria ad Gud giefur og syner oss j øllum sijnum Velgiorningum.

7. So ad mørg Votn kunna ecke ad slockva Elskuna, nie Straumarner ad kiefia hana. Po ad Madur villde giefa øll Audæfe sijns Huss fyrer Elskuna, þa være þad allt einskis verdt.

II. 8. Vor Syster er lijtel, og hefur eingenn Brioст, Hvad skulum vier giora vorre Systur, (d) nær Menn vilia tala til hennar?

(d) A þeim Deige þa Menn skulu tala um hana.

9. Er hun einn Mur, Pa vilium vier byggia Vijg-Skørd af Silfre þar uppa, Er hun einar Dyr, þa vilium vier giora hana fasta med Cedrus-Trie.

10. Eg em eirn Mur, og mijn Brioст eru sem Turn, Par er eg ordenn fyrer hans Augum sem sa ed Fridenn finnur.

11. Salomon hefur eirn Vijngard j Baalhamon, hann gaf Vardhalldsmonnonum Vijngardenn, ad hvor af þeim skyllde færa honum fyrer hans Avoxtu Pusund Silfur-Peninga.

12. Minn Vijngardur er fyrer mier. Pier Salomon! heyrer til Pusund, Enn Vardhalldsmonnunum Tvo Hundrud, asamt med hans Avoxtum.

13. Pu sem byr j Alldengardenum! Laat mig heyra þijna Raust, Stallbrædurner athuga þad.

14. Fly þu minn Vin, og vert sem eitt Raadyr, eda sem eirn ungur Hiortur a Jurtrafiollonum.

Ender a Lofkvæde Salomonis.



# Allar
# Spamannanna
# Bækur,

## Utlagdar a Norrænu.

---

Giorn: Book: Postul: 10.

Þessum Christo bera aller Spamenn Vitne, ad Aller Þeir sem trua a Hann skulu fa Fyrergiefning Syndanna fyrer Hans Nafn.

# Bækur
# Prophetanna,
edur
## Spamannanna,
eru
(med þeirra Nøfnum)

| | |
|---|---|
| 1. Esajas.<br>2. Jeremias.<br>Harma-Grœatur Jeremiæ.<br>3. Ezechiel.<br>4. Daniel. | Þesser kallast þeir Stærre Spœamenn. |
| 5. Hoseas.<br>6. Joel.<br>7. Amos.<br>8. Abdias.<br>9. Jonas.<br>10. Micheas.<br>11. Nahum.<br>12. Habacuk.<br>13. Zophonias.<br>14. Haggeus.<br>15. Sacharias.<br>16. Malachias. | Þetta eru Nøfn þeirra Tolf Smærre Spœamanna (er so kallast.) |

# Formaale
yfer
# Prophetana
D. Mart. Luth.

Þad synest fyrer Skinseminne nærsta liitels verdt, um Spaamanna Bækurnar, so sem ad mune þær oss ad litlu Gagne koma, Sierdeilis ef ad þeir Sierþitringar dæma þar um, hvørier ad Heilaga Ritning þykiast alla fyrer utan kunna, sem Fingra-Riim, þeir hallda þetta, af miklum Riikdome sijns Anda, ecke odruvijs enn so sem fyrer toomt Maal, og skamtaun Þvætting. Enn þvi hinu sama velldur hellst þad, ad þau Verkenn, og þeir Giorningarner eru nu aller umlidner, og þad nu heyrest þar ecke annad ut af utann Ordenn ein og Historiann. Hvad ei þarf ad undra, þviad Guds Ord er og so eirnenn nu fyrerlited, þo ad enn nu daglegana sien þau somu Teiknenn og Giorningarner, þar med eirnenn sialfst Riiked Christi, so vollduglegana fyrer vorre Augsyn. Enn hvørsu miklu framar munde þad þa fyrerlited verda, ef ad þeir Giørningar, og þau Daadsemdar-Verkenn være ecke nu fyrer Hondum? Eins lijka og þad Israels Syner fyrerlitu Gud og hans Ord, þann Tijd er þeir þo fyrer Augsyn høfdu sialfst Himna-Brauded, Elld-Stolpan, og Skijnanda Skyed, þar med eirnenn bæde Kiennemannsskapenn og Høfdingiadomenn.

Þar fyrer eigum vier hiner Christnu ecke ad vera slijker so vanvirduleger, ofmatader, og ohacklaater Sierþitringar, helldur þa eigum vier Spaamanna Bækur medur Alud og Athygle ad lesa, og oss til Nytsemdar ad færa. Þviad j firstu kunngiora þeir og vitna ut af Christi Rijke, þar ed vier nu um Stunder inne lifum, og þar ed aller Christs Truader Menn hafa inne lifad til þessa Dags, og lifa munu allt til Heimsins Enda. Og þad er oss ein mikel Huggun, og eitt nærsta øruggt Traust, ad vier fyrer vorre Christelegre Tru høfum so megtuga og gamla Vitnes-Menn, fyrer hvad vor Christeleg Tru hun stirkest nærsta miog, ad hun sie fyrer Gude su Sanna Religio og Gudsþionusta, j giegn ollum ronguin falskleguin Manna Heilagleik og Villudomum, hvørier vegna sins hins mikla Fegurdar-aalits, og Fiolda saker þeirra Manna sem þar ad hallast, mioq hueixla og æstrijda Truar-veik Hiortu, So og eirnenn vegna þess Mootlætis Krossens og Faamenn's saker þeirra hinna somu sem Christelegre Tru ad halla. So sem þad nu a vorum Døgum, þad Tyrkians, Pavans, og annara fleyre Villum una Magtarvellde giorer oss mikla og megtuga Hueixlan.

. J moote slijkum Hueixlonum ad standa, þa eru oss Spaamennerner gagnleger, epter þvi sem Petur Postule hann hroosar af 1 Pet. 1. C. þad Spaamennerner hafe ecke sialfum sier þar med þionad, hvad þeim var openberad, helldur oss, oss (seiger hann) þa hafa þeir þar med þionad. Þviad þeir hafa oss so med sijnum Spaadomum Þionustu veitt, Ad hvør hann vill j Christi Rijke vera, sa hinn same skal vita þad, og þess Ordulenn ganga, ad hann hlytur aadur margt Mootlæte ad lijda, fyrr enn þad hann kiemst til þeirrar Fyrerheitennar Dijrdar. So ad vier verdum hvørstveggia þess saunfrooder, og j þvi fullvijser, Ad su hin mikla Dyrdenn Rijkesins Christi sie visselegana Vor, og þad hun muune sannarlega koma, þo þad aadur þar undan fare Krossens Motlæte, Smaan, Utlegd, Fyrerlytning, og allskins Motganguur Christi vegna. Og hier um aminna þeir oss fyrer þann skulld, ad vier ei skulum laata skielfa oss medur Oþolinmæde, eda Vantru, og orvæntum ecke þeirrar epterkomande Dijrdar, sem so mikel og merkeleg mun vera, þad eirnenn Einglarner gyrnast hana ad sia.

J annare Grein, þa audsyna Spaamennerner oss mørg og merkeleg Dæme og Reynslur hins Firsta Bodordsins, og utbreida þad hid sama nærsta meistaralegana, bæde med Ordum og Epterdæmum, Hvar med þeir knya oss vollduglegana til Guds Otta, og Sannrar Truar, so ad vier stadfaster blijfum þar vid. Þviad þa þeir hafa nu endad sijna Spaadoma ut af Rijkenu Christi, þa er allt þad annad ecke utann so sem Dæme til þess, Hvørnenn Gud hefur sitt hid Firsta Bodord so streingelega og hardlega stadfest. So þad er vissulegana eckert annad, ad lesa, edur heyra Spaadomana, enn ad lesa og heyra Hvørnenn þad Gud oognar og hugsvalar. Þeim Ogudlegum oognar hann, sem Athugalauser og Drambsamer eru, og ef hans Ognaner edur Heitingar vilia ei stoda, þa þreynger hann ad þeim medur sijnum Hyrtingar Sprota, sem er Drepsoott, Hallære og Ofridur, allt þangad til ad þeir forganga med ollu, og sannar so sijnar Ognaner og Heitingar j þvi hinu Firsta Bodordenu. Enn hann veiter Hugsvalan þeim goodsusum og Gudhræddum, sem j allskins Aauandum stadder eru, og hialpar þeim med Raadum, Stirk og Fulltinge, fyrer allskins Jardteikner og Stormerke, j giegn allre

allre Magt Oløfulsins og þessarar Veralldar, og sannar so sijna Hugsvalan hins Firsta Bodordsins.

Medur slijkum Predikønum, og soddan Epterdæmum veita Spaamennerner oss enn ad nyu sijna Þionustu, og þad sama nærsta merkelegana, so ad vier skulum ei þar fyrer hneixlast, þo ad vier siaum Hvørsu þad hiner Ogudlegu, med øllu so Athugalauser og Dramblaater, fyrerlijta Guds Ord, og giefa so hans Heitingum, edur Ognan, ongva Vakt, lijka sem ad Gud sialfur hann være ecke utan Hiegome og einskis verdur. Þviad j Spaamannanna Bookum siaum vier fullkomlega, Hvørsu þad øngvum þeim hefur vel utgeinged, sem Heitingarnar og Guds Ognaner hafa forsmaad, þo þad hafe hiner allra sidferdugustu og lærdustu Menn, jaa, og hiner Volldugustu Kongar og Keisarar vered, sem Soolenn hefur maatt yfer skijna. Og þar j moot siaum vier þann øngvann med øllu yfergiefenn hafa vered, sem sier hefur utvogad uppa Guds Traust og Fyrerheit, þo ad þad hafe hiner herfelegustu og mestu Glæpa Menn, og hiner aumnustu Vesalingar vered, sem hier a Jardrijke vera kunna, jaa, þo ad þad være eirnenn saa j helslegne Abel, og hinn uppsvelgde Jonas. Þviad Spaamennerner þeir bevijsa oss medur þessu, þad Gud hann hallde streingelega yfer sijnu hinu Firsta Bodorde, og vilie þeim Faatækum og Riettrundum eirn Miskunsamur Fader vera, hvørsu lijtels-haattar og fyrerlitenn Madur sem er. Þar j moot vill hann og eirn hardudugur hefuesamur Doomare vera yfer Ogudlegum og Dramblaatum, hvørsu Stollter, Megtuger, Dinplærder, eda Sidferdisgooder sem þeir eru, sie þad Keisarenn, Pavenn, Tyrkenn, eda Diofullenn sialfur.

Og fyrer þessar greindar Saker, þa eru oss Spaamannanna Bækurnar nu a vorum Døgum nærsta nytsamlegar, og þarflegar ad lesa, so ad vier medur slijkum Epterdæmum og Predikønum, verdum stirkter og hughreyster, j giegn þeim oselgianlegum, og otelianlegum Skamfyllingum, og (sem vier vonum) j giegn þeirre hinne allra sijdurstu Hneixlan þessarar bølvadrar Veralldar. Og vier siaum Hvørsu algiørlega þad Tyrkenn helldur DROTTinn Vorn JEsum Christum og hans Rijke, j hiaa sier og sijnum Mahomet ad reikna, ongvo neytann ad vera. Og Hvørsu þad med øllu j hiaa oss, til vorrar Handar, under Pavans Yferbodan, ad fyrerlited er þad Elskulega Evangelion og Gudspiallsins Ord, j hiaa þvi Fegurdar Yfervarpenu, og þeim mikla Rijkdome mannlegra Uppsetninga og Heilagleiks. Hvørsu athugalaust þa handtiera þeir vondu Flugu-Andar, Epicurei, og adrer þeirra Jafningiar, medur sijnum eigenlegum Þvotta j giegn Heilagre Ritningu? Enn hvørsu þverudarsamlega og herfelega þa lifer nu nærlega hvør Madur epter sijnu Sialfræde og Illvilia, j moote skiærum Sannleikanum, sem nu a þessum Tijmum er auglios ordinn? Þvi so lætur þad ausiaast, sem þad sumum-hvørium þyke Gud og Christur DROTTinn vor lijtels virdur, enn eg þeige um þad, ad Guds hid Firsta Bodorded skyllde so streingelegt vera.

Enn hier i mot kallar Guds Ord og seger, Bijdtu first, Bijdtu nockra stund! Hvad gillder? þu munt reyna, ad Spaamennerner hafa oss ei Osatt sagt, nie a Taalar dreiged med sijnum Epterdæmum og Predikønum. Enn vit þad fyrer vijst, ad þar hafa Vollduger og ædre Kongar vered, og verre Skalkar enn þesser, og eru nidursllegner, So munu þesser, sem nu eru til, ecke hiaa sleppa. Þar j moot, hafa og eirnenn aumer og lijtelshaattar Menn vered fordum, hvørium ed þo hefur dijrdlig Hiaalp veitst, so munum vier og eirnenn lijka ecke helldur yfergiefner verda. Þeir eru ecke hiner firstu sem oolmast og illjkast hafa, so erum vier og eirnenn ecke hiner firstu sem Motlætid hafa lidid, og þvingader hafa vered. Siaa þu! med þessum Hætte eigum vier nu Spaamannanna Bækurnar oss nytsamlegar ad giøra, þvi so verda þeirra Bækur avaxtarsamlegana lesnar.

Enn þad, ad þar eru j þeirra Bookum fleyre Ognaner og Heitingar inne, helldur enn Hugganer og Fyrerheit, þa er hægt ad vita Hvør ad Søkenn sie, þviad hiner Ogudlegu hafa alla Tijma fleyre vered enn þeir hiner Goodfusu og Gudhræddu. Þar fyrer hlytur med Jafnade Løgmaaled elnatt meir ad framm-knyast, helldur enn Fyrerheited Naadarennar, med þvi, ad hiner Ogudlegu eru ad auk sijns Athugaleyses nærsta slyngver a þad, ad þyda Gudlegar Hugganer og Fyrerheit uppa sialfa sig, og þær Ognaner og Heitingarnar ut ad leggia uppa hina adra, og laata sier med ongvo moote j burt snua af slijku rangsnunu Sinne, og falskre Von, þviad þeirra Vijsa og Maaltæke er þetta, Pax & Securitas, Vier høfum ongva Neyd! þar blijfa þeir vid, og fara so þar med burt j hriggelega Fordiarfan, epter þvi sem Paall Postule hann seiger, Þeirra Fordiarfan mune braadlega yfer þa koma.

## Afgudadijrdkaner Gydinganna.

Framveigis, Med þvi, ad Spaamennerner þeir kalla einanmest ut yfer þessare Afgudadijrdkunenne, þar fyrer være þad naudsynlegt ad vita, Hvørsu þad þessare Afgudadijrdkunenne hefur haattad vered.

Þviad

Hviad i hiaa oss, under Pavadomenum, þyker mørgum miøg vænt um sig, og meina ad ei sieu þeir slijker Afgudadijrdkendur, sem þad Israels Syner voru, þar fyrer ackta þeir og ecke mikels Spaamennena, sierdeilis j þessu Efne, so sem ad þetta kome ecke vid þa, nær ed þeir straffa Folked fyrer sijna Afgudadijrdkan, þeir þykiast þar mikels of hreinferduger og hellager til þess, ad þeir mune fremia nockra Afgudadijrdkan, og þad munde þeim athlægelegt þykia, ad þeir skyldu þurfa ad hrædast fyrer neinum Heitingum edur Ognan, vegna slijkrar Afgudadijrdkunar. Lijka so sem þad Israels Lydur hann giørde, og villde øngvanegen þvi trua, þad þeir være Afgudadijrdkendur, og Spaamannanna Heitingarnar og Ognaner hlutu allar Lygar ad vera, og þvi urdu þeir af Folkenu fordæmder, sem være þeir Villumenn.

Eige høfdu Israels Syner so heimskulega Gudrækne, ad þeir mundu tilbidia Stocka og Steina, sierdeilis þeirra Kongar og Høfdingiar, Kiennemenn og Prophetar, hvørier þo ad eirnamester Skurgodadijrdkendur voru. Helldur var þetta þeirra Afguda dijrdkan, ad þeir lietu þa Guds Þionustuna hiaa fara, sem til Jerusalem var sticktud og til skipud, enn dicktudu og uppbyriudu eina adra Guds-Dijrdkan, sem þeim þootte þægelegre epter sijnu sialfs Hugbode og Lunderne, fyrer utan Guds Tilskipan, og upp settu so adrar nyar Sidveniur, og stiptudu þar til adra Tijma og adrar Persoṅur, Hvad ed Moyses hafde þeim streingelega fyrerboded, sierdeilis j Bookenne Deuteronomii 12. Cap. og visade þeim til þess Stadar sem Gud sialfur hafde utvaled og þar til einkad, sem var til hans Tiallbudar og hans Huss. Slijkur þeirra falsklegur og rangsnuenn Þootte þa var þeirra Afgudadijrdkan, og þad sama þootte þeim med Afbragde fara, og þar treysta þeir uppa, lijka sem ad hefdu þeir framed allþægelegt Verk Gude, Hvad ed þo ecke var utann Ohlydne vidur Gud, og Fyrerlytning hans Bodorda.

So sem ad vier lesum 1 Reg. 12. Cap. þad Jeroboam sette ei upp ad eingeingu tvo Kaalfa, helldur liet hann eirnenn þar jafn framt fyrer Folkenu so Predika, Eige skulud þier nu leingur upp fara til Jerusalem, helldur sia þu Israel! ad hier er þinn Gud, sem þig hefur utleidt af Egyptalande. Hann seger ecke, Sia þu hier Israel, Hier er eirn Kaalfur, Helldur, Hier er þinn Gud, sem þig hefur utleidt af Egyptalande. Hann medkienner berlega, þad Gud Israels sie Sannur Gud, sa ed þa hefur utleidt af Egyptalande, enn þo þurfe þeir ei til Jerusalem epter hønum ad fara, nie hans ad vitia, helldur so, þeir finne hann jafnvel til Dan og Berseba, j hiaa þeim Gullkaalfum. Þvi var þesse hans Meining, þad

Menn kynne lijka so vel ad offra og foornfæra Gude fyrer þeim Gullkaalfum, so sem fyrer ødru Guds heiløgu Teikne, eins lijka sem til Jerusalem, fyrer þeirre Gull-Ørkenne DROTTins, være Gude þionad og offrad. Sia þu, ad þetta kallast ad yfergiefa þa Guds Þionustuna til Jerusalem, og afneita þar med Gude, hvør ed slijka Þionustugiørd hafde tilskipad og inn sett, og hallda, ad hann hefde ei slijka Guds Þionustu boded, og med slijku Atferle byggdu þeir uppa sijn eigenleg Verk og Hugþootta, enn ecke hreinferduglegana uppa Gud einsamann.

Medur slijku sijnu Hugbode og godre Meiningu þa uppfylltu þeir allt Landed med Afgudadijrdkaner, so ad þeir a øllum Hædum og Dølum, og under øllum Stoor-Eikum og Vidartriaam þa uppbyggdu þeir Ølltaru, Foornudu þar og offrudu, og þad hlaut þo allt ad kallast Israels Gude þionad, Hvør annad sagde, sa var hallden Villumadur og Fals-Prophete. Þar fyrer kallast þad berlega Afgudadijrdkan upp ad byria, nær ed einhvør uppdicktar nockra Guds Þionustu epter sialfs sijns Hugbode, fyrer utan Guds Tilskipan. Þviad Gud hann vill ecke ad vier skulum kienna hønum, nie segia hønum fyrer, Hvørnenn þad hønum skule þionad vera. Helldur vill hann menta oss, og þad vier skulum epter hans Skipan giøra, hans Ord eiga þad ad vera sem oss skulu upplysa og leidrietta. Þviad aan hans Orda er þad allt hvad Menn uppdickta Gude til Þionustu, epter sijnu Hugbode, ecke utan Afgudadijrdkan og openberar Lygar, hvørsu fagurt og goodmootlegt þad synest vera j Manna Augsyn, hvar af ed vier høfum optsinnis um skrifad.

## Afgudadijrdkaner hiaa þeim hinum Christnu.

Hier ut af epterfilger nu, þad j hiaa oss hinum Christnu þa sieu þeir aller Afgudadijrdkendur, og þad þær Heitingar og Ognaner Spaamannanna kome þeim lijka vid, sem nya Guds Þionustu uppdickta j Christnenne, og þeir ed hana enn nu hafa edur hallda j moote Guds Tilskipan og Bodorde, epter sijnu sialfs Hugbode (og sem þeir kalla) j goodre Meiningu. Þviad vissulegana þa setia þeir med soddan Hætte sitt Trunadar-Traust uppa sijn eigenleg Verk og utvallda Giørninga, og ecke einfalldlega nie hreinferduglega uppa Vorn HErra JEsum Christum. Þeir hiner sømu kallast nu j Spaamanna Bokunum þær Hoordoms Kvinnur sem ecke laata sier nægia ad hallda vidur sinn Eignar-Mann Christum, helldur hlaupa

eirnen epter ødrum, so sem þad kynne Christur ei eirn Hiaalp ad veita, fyrer utan vorn Tilstirk edur vorra Verka, Eda so sem þad hann hafe ei einfær verid til ad endurleysa oss, og þar fyrer þa hliotum vier eirnenn sialfer þar nockud til ad giøra. Hvad vier vitum þo fullkomlega med sialfum oss, hvørnen þad vier høfum þar alls øngvann Tilverknad haft, þad Guds Son hafe fyrer oss Dauda lided, og vorar Synder uppa sig teked, og bær somn a Krossenum bored, Ecke ad eins aadur enn Heimurenn kunne þad ad skinia, helldur eirnenn fyrr enn þad vier vorum fædder, So lijtt, og þo miklu midur enn þad Israels Syner giordu þar nockud til, þad Egyptaland og Pharao var plaagadur, og þad þeir urdu frelsader fyrer Dauda þeirra Egyptskra Frumgietninganna, hvad Gud eirn hann giørde, og þeir aller veittu þar øngvann Stirk nie Studning til.

Jaa, segia þeir (Papistar) Israels Syner þeir gøfgudu Afgude medur sinne Guds Þionustu og dijrdkudu ecke Sannan Gud, Enn vier Þionum j vornm Kyrkium Þeim Sannarlegum Gude, og Þeim Einka DROTTne JEsu Christo, Þviad vier vitum af øngvum Afgude ad segia. Andsvar, Lijka so toludu eirnenn Israels Syner fordum, og søgdu aller, ad øll Þeirra Guds Dijrdkan veittist Þeim Sannarlega Gude, og villdu med øngvu Moote Þad lijda, ad þad skyllde kallad Skurgodum Þionad, ei helldur enn vorer Papistar vilia þad lijda, og fyrer Þann skulld jhel slou Þeir eirnenn og offoktu alla Riettferduga Spaamenn. Þviad vissulega Þa villdu Þeir eirnenn ut af øngvum Afgude vita, epter Þvi sem ad Sagnabækurnar utvijsa.

Þviad so lesum vier Judicum. 17. Cap. Þad Modur Þess Manns er Micha hiet, Þa ed hann hafde Þa Þusund og Hundrad Silfurpeninga j fra henne teked, og henne Þa aptur feinged, ad hun sagde Þa so til hans, Velsignadur siertu DROTTne, Son minn! Þetta Silfur hefe eg DROTTne lofad, hvad er minn Son skal af mier taka, og eina Mind edur Lijkneskin Þar ut af giøra laata, etc. Hier heyrum vier klaarlegana og skilmerkelegana, Þad Modurenn hun meinte Þar med Þann hinn Sannarlega Gud, Þeim ed hun hafde Þetta Silfur heited ad giefa, so ad Þar giørdest ein Mannlijkan edur Lijkneske ut af. Þviad hun seiger ecke, Eg hefe Þetta Silfur heited ad giefa einum Afgude, helldur seiger hun DROTTne, hvørt Ord ad øllu Gydinga Folke er vel kunnugt, so Þad merker Þann Sannarlega Lifanda Gud. Eins lijka Þa giører og Tyrkenn medur sinne Guds Þionustu, ad hann meinar og nefner Þann Sannarlegann Gud sem skapad hefur Himen og Jørd, so lijka eirnenn Gydingarner, Tartararner, og aller Vantruader, Enn Þo er Þad allt ecke utan Skurgodadijrdkan hvat Þeir laatast Gude Þiona.

Item sa merkelege Mann Gedeon, Hversu furdanlega ad hann fiell, Judic. 8. Cap. Hvør ed Þo so talade, Þa ed hann sagde til Israels Sona (hvørier ad villdu ad hann og hans Syner skylldu Høfdingiar vera yfer Þeim) Eige vil eg, nie mijner Syner, ydar Hofdinge vera, helldur DROTTinn sialfur (Þad er sa hinn Sannarlege Gud) hann skal ydvar Hofdinge vera. Enn lijka vel Þa took hann Þær Haafur sem Þeir gaafu honum, og giørde Þo hvørke Lijkneskiur nie nockurt Alltare Þar ut af, helldur eitt Kiennemannlegt Klæde, og villde so eirnenn ut af Goodre Meiningu hafa eina Guds Þionustu j sinne Borg. Enn Heiløg Ritning hun seiger, ad allur Israels Lydur hafe þar med Hooraner drijgt, og þad hans Hws og Afkvæme hafe fyrer Þad j Grunn geinged. Nu meinte Þo sa hinn Heilage merkelege Mann øngvann Afgud Þar med, helldur Þann hinn Sannarlega Einka Gud, epter Þvi sem Þau enn augiætu og Audrijku Ordenn utvijsa, þar hann seger, DRottinn skal ydar Hofdinge vera, enn ei eg, etc. Þar med hann augliostlegana giefur Gllde Heidurenn, og vidurkienner alleinasta Þann Sannarlegann Gud fyrer eirn Herra, og Almaattugann Gud, og vill, ad hann skule so halldenn vera.

So hofum vier hier lijka og aadur fyrre heyrt, Þad Konungurenn Jeroboam, 1 Reg. 12. Cap. kallade og ecke sijna Gullkaalfa neina Afgude, helldur Þann Gud Israels sem Þa hafde ut leidt af Egyptalande, Hvør ad er sa hinn Sannarlege Einka Gud, Þviad eingenn Afgud hafde þa utleidt af Egyptalande. Og þad var og ecke helldur hans Meining, Þad hann villde Afgude tilbidia, Helldur, med Þvi hann oottadest (so sem Textenn seger) Þad hans Folk munde fra honum falla til Konungsins Juda, ef ad Menn skylldu ad eins Gude offra til Jerusalem, og Þvi upp sette hann eina sierlega Guds Þionustu, Þar med hann villde Folkenu hallda j hia sier. Og meinte þo samt Þann Sanna Gud sem til Jerusalem byggde, Enn Þess være ecke Þørf, Þad Gude være alleinasta offrad j Jerusalem.

Og hvad Þarf hier fleyre Ord um ad hafa? Gud sialfur hann medkienner, þad Israels Syner hafe j Þessare Guds Þionustu øngvann Afgud meinad, helldur alleinasta hann sialfann. Þviad, so seger hann, Hosea j ødrum Cap: Þa muntu kreda so ad mier (seger DROTTinn) Madur minn! og

falla

kalla mig ecke leingur Baal minn, þviad eg mun i burt taka Þau Nøfnenn Baal af þeirra Munne, so ad þeir skulu ecke leingur hugsa epter Þvi Nafne Baals. Hier hlioota vier Þo ad medkienna, ad full Sanninde sie Þad, ad Jsraels Syner hafe med siinn Offre og Guds Þionustu øngvann Afgud meinad, helldur Þann sialfann Sannann Gud, so sem Þad Gud sialfur hann seiger hier augliosslegana i þessare Orda Grein Hosea Spaamanns, Þu munt ei leingur kalla mig Baal minn, Nu var Þo Baals Diirdkan su hin allra mesta, almennelegasta, og hin Haatijdlegasta Guds-Pionusta, sem var hia øllu Jsraels Folke, Enn Þo var hun ecke utan Afgudadiyrdkan, og hvorsu sem þeir hrosudu, ad þeir meintu Þar med þann Sanna Lifanda Gud.

Þar fyrer þa kiemur Þad vorum Papistum til lijtels, Þad framm ad bera, ad þeir Þione øngvum Afgude j þeirra Kyrkium og Klaustrum, helldur alleinasta Gude Þeim Sanna DROttne. Þviad Þu heyrer hier, ad Þad er ei noog Þo ad Menn hugse, edur seige so, Þad sama giøre eg Gude til Lofs, Eg meina Þar med GUd sialfann, Item, Þeim Einum Sannarlegum Gude vil eg Þiona, first ad aller Afgudadiirdkendur segia eirnen lijka so, og hafa hina sømu Meining. Su gooda Meining eda Hugbod hefur ecke ad segia Þar, annars være þeir og eirnenn Guds Þienarar sem piint hafa Postulana og Christum, Þviad Þeir Þeinktu eirnenn (so sem Christur sialfur seger, Joh. 16. Cap.) ad þeir mundu GUde Þar med Þæga Þionustu giøra. Og Paall Postule, Rom. 10. Cap. ber Gydingunum Þad Vitne, ad þeir vandlæte um GUd, Og j Postul: Giørn: B: 26. Cap. seger hann, ad þeir, medur sinne Guds Þionustu, Nott og Dag vone ad koma til þeirrar fyrerheitennar Saaluhiaalpar.

Helldur, Hvor sem eirn hann giæte vel ad Þvi, ad hann vite visselega, Þad hans GUds-Þionustæ sie stiktud med GUds Orde, enn ecke uppdicktud epter sialfs Hugbode edur godre Meiningu. Þvi hvør Þa GUds-Þionustu giører, fremur, eda frammflytur, sem øngvann Guds Vitnisburd hefur, sa skal vita fyrer viist, Þad ecke Þione hann Sønnum GUde, helldur siinum sialfs eigenn uppdicktudum Afgude, Þad er siinu sialfs-Hugbode og rangre Meiningu, og Þar med eirnenn ohreinum Anda, Og øll Spaamannanna Ord eru Þonum j moote. Þviad sa Gud er ecke til, sem sig vilie diirdkadann hafa erter vorre Villd og Hugbode, edur sier nockra GUds-Þionustu uppdickta laata, fyrer utan hans Ord og Tilskipan. Helldur er Þar ecke utan eirn GUd, sem fyrer siin Ord nooglegana hefur stiftad og tilsett allshaattadar Stiftter og GUds-Diirdkaner, Þar inne ad hann vill sier Þiona laata. Þar vid eigum vier ad bliifa, og hvørke til Hægre nie Vinstre Handar Þar fra ad viikia, hvørke meira nie minna ad starfa, hvørke betur nie verr Þad ad giøra, enn so sem hann hefur skipad og tilsett. Ellegar mun þeirrar Afgudadiirdkunar eingenn Ender verda, og eingenn Greinarmunur a bliifa, hvørt Þad er helldur Sønn Guds Þionusta, edur Afgudadiirdkan, med Þvi þeir segiast aller meina Þar Sannarlegann GUd med, og tiidka aller hans rietta Nafn. Þeim Einum hinum sama Lifanda GUde, sie Lof og Diird, fyrer JEsum CHristum Son Hans, og DROttinn vorn Blessadann ad Eylliifu,

Amen.



# Formaale yfer Book Esaiæ Spaamanns.

Hvør hann vill Spaadom Prophetans Esaiæ nytsamlegana og medur Averte yferlesa, og hann giør vallann under standa, Sa fyrerlyte ecke þetta mitt Raad og Underviisan, ef ad hann sialfur veit ei adra betre. J Firstu, þad hann skilie ei undann þann Titel, edur Upphaf þessarar Bookar, helldur lære sem best hann ad skilia. Og laate sier ei þad þykia, ad hann kunne Esaiam allvel ad under standa, enn hlioote þar epter ad þad ad lijda, ad Menn sege, þad hann hafe enn all rei Upphafed sialft, nie þa Firstu Lijnuna riettelega lært ad skilia, auk helldur allann Spaadomenn. Þvíad þad sama Upphafed, og sa Titellen er ad mestu so sem fyrer eitt Lioos, og eina Gloseran halldande yfer allre Bookenne. Og Esaias sialfur hann vijsar þeim eirnenn ed hans Spaadoma lesa, so sem med Fingre sijnum, þangad ad, lijka sem til eins Leidarvijsers og Grundvallanar sinnar Bookar. Enn hvør hann fyrerlytur Upphafed, edur þad hann skilur þad ecke riettelega, þeim hinum sama sege eg, þad hann laate þennann Spaadom Esaiæ med Raadum vera, ellegar þad hann mune þann ei ødruvijs med riettum Grundvelle skilia kunna. Þvi þad er ecke møgulegt, þad Menn kunne riettelega og klaarlega ad skilia, nie ad underslanda Prophetans Ord edur Meining, utan þeir vite Titelsins og Upphafsins skilmerkelegann Grundvøll, og hvør Root eda Upptok Maalsins eru.

Enn þennann Titelenn, edur Upphafed Bookarennar, kalla eg ecke alleinasta þetta, þad er þu les edur yferskodar þesse Ordenn, Usia, Jotham, Achas, Ezechias, Kongar j Judea, etc. Helldurso, ad þu yferles þa sijdurstu Book Konganna, og eirnenn þa adra Bookena Chronikunnar, og skoder þær medur Athygle, sierdeilis þa Giørninga, Ord, og Atburde, sem þar hafa til bored under Stiornan og Vellde þeirra Konganna sem hier j Upphafenu eru til greinder, allt til Enda þeirra Booka. Þvi þess er oss Þørf, ef ad vier viliuni Spaamanna Bækurnar riettelega skilia, ad Menn vite Hvørnenn þad hafe j þann Tijma haattad vered j Landenu, og hvørier Atburder ed þar hafa til bored, og hvad Folkenu hefur hellst j Vil vered, eda hvørn aasetning ed Menn hafa þa haft vid sijna Naagranna, vidur sijna Vine, edur Ovine, og sierdeilis, Hvørnenn þeir hafa þa j Landenu hegdad sier vidur Gud og hans Spaamenn, j hans Orde, edur tilsettre Guds Þionustu, ellegar j sialfs þeirra Afgudadijrkan.

Sovære þad og vel naudsynlegt, ad Menn visse Hvørnenn þad Londenn læge hvørt vid annad, so ad þau utlendsku Nøfn og okiendu Ordenn giørdu þeim ed les ongvann Leida og Villu edur Forhindran j Skilningenum.

Enn so ad eg mijnn faafroodu og einfølldu Landsfolke syne j þessu mijna Þionustu, þa vil eg j stuttu Maale upp teikna þau Lønd og Hierød, sem liggia j kringum Jerusalem, og Judeam, þar ed Esaias hefur jnne lifad og predikad. So ad þeir siae þad þess glogglegar, hvørt ut þad Prophetenn, edur j hvøria aatt þad hann vendar sijnu Maale, so sem þa, nær ed hann Spaadooma fremur j moot Sudre, j moot Nordrenu, etc.

J moot Austrenu hefur Jerusalem, edur Judea, sier hid nærsta þad Dauda Hafed, þar ed fordum hafur staded Sodoma og Gomorra. Enn hinumeigenn þess Dauda Hafsins þa liggur Landed Moab, og Barna Ammons. Þar nærst enn leingra j burt liggur Babylon, edur Chaldea Land, Og þar enn j Austur betur liggur Persialand, Þar ed Esaias talar margt um.

J moote Nordrenu liggur Fialled Libanon, og þar enn nockud burt betur Damascus og Syria. Enn þadann enn Nordur leingra, so sem til Austurs, þa liggur Assyria, þar ed Esaias hefur margt og mikid af agt.

J moote Vestrenu liggia þeir Philistei, ut med þvi mikla Hafe, sem voru hiner allra skædustu Oviner Gydinga, og vid þad sama Hafed til Nordurs liggia Borgernar Zidon og Tyrus, hvøriar sameingia sig vid Galilea Hierad.

J moote Sudrenu hefur þad mørg Lønd liggiande, sem er Egyptaland, Blaland, Arabiam, Hafed Rauda, Edom og Madian, so þad Egyptaland liggur vid Vestrenu til Ut-Sudurs.

Þetta eru hellst þau Lond og þeirra Nøfn, þar ed Esaias hefur spaad ut af, so sem ut af þeim Naavistar Mønnum, þeirra Vinum og Ovinum, er laau j kringum Gydinga Land, lijka sem grimmer Vargar j kringum Sauda Hus, vid hvøria þeir giørdu samtijdis Saattmaala og Vinattu, þo ad þad kiæme til lijtels Gagns.

Nærst þvi blijfur þu þessum Spaadome Esaias j sundur ad skipta j þriar Greiner. J Firstu þa hefur hann med Hond, eins og adrer Spaamenn, Tvegia Handa

Handa Greiner. Eina þa, ad hann predikar margt og miked sijnn Folke, og straffar þeirra marghattadar Synder, enn eirna hellst þa margfølldu Afgudadijrdkan, sem þa took yfer ad gnæfa j hiaa øllu Israels Folke (lijka so sem þad enn nu gooder Predikarar giøra, og eirnenn alla Tijma giøra hliota, hiaa sijnu Folke) og hiellt þeim jafnann j Aga og Sidsemd, medur Ognan Hyrtinganna, og med goodum Guds Fyrerheitum. Hin ønnur Greinenn er, þad hann tilreider Menn, og þa hæfelega giører til ad vænta og vona uppa þad tilkomanda Rijked Christi, ut af hvøriu hann so skilmerkelega og margfalldlegana fyrer spaaer, og seger, hvad eingenn annar Prophete so skilvijslega giører, so þad hann tilteiknar Jungfru Mariu Moodur Christs, hvørnenn þad hun skyllde Son gieta og fæda, ad ospilltum Meydome, Cap. 7. Og hvørnenn þad hann vors Herra Pijnu, medur Upprisunne af Daudanum, og hans Rijke vollduglegana og angliooslegana utskijrer j þeim Fimmtugasta og Þridia Capitula, lijka sem ad være þad þa þegar a þeim sama Tijma skied, so þad hefur ei ødruvijs maatt vera, enn þad hann hafe eirn nærsta Agiætur og miøg frabærlega upplystur Spaamadur vered. Þad sama giøra og aller Spaamenn, ad þeir læra og straffa þad nærveranda Folked, og kunngiøra þvi þar jafnframt JEsu Christi Tilkomu, og hans Rijke, og vijsa Folkenu, og suua þvi a þann Veg sem til hans leider, so sem til hans hvør ed øllum hiaalpar, bæde þeim sem fyrre hafa vered, og epterkomande eru. Þo þad sama giøre nu sa Eine meir enn hinn Annar, sa Eine rijkuglegar enn hinn Annar, enn Esaias meir og framar enn aller þeir adrer.

J Annare Grein, þa hefur hann nockud sierlegt ad giøra vidur þann Keisaradom til Assyria, og vidur þann Keisarann Sennacherib, þar spaaer hann eirnenn meira og fleyra utaf, helldur enn þad nockur Annar Spaamadur giører. Einkum, Hvørnenn þad sa same Keysare munde under sig vinna øll kringumliggiande Lønd, og eirnenn Israels Rijke, þar ad auk eirnenn miøg mikla Ogiæfu tilleggia þvi Kongarijkenu j Judea. Enn a þvi helldur hann fast, sem øruggvum Murvegg, med sijnu Fyrerheite, Hvørnenn þad Jerusalem skyllde verndast og frelsud vera fyrer hans aagange, hvørt Daasemdar Verk ad eitt er a medal þeirra stærstu sem ad finnast j Heilagre Ritningu, ecke alleinasta þess Giøruings vegna, þad eirn soddan Keisare skyllde fyrer Jerusalem sleigenn verda, helldur jafnvel eirnenn Truarennar vegna, þad Menn gaatu þvi truad. Undur eru þad (sege eg) ad nockur Madur til Jerusalem hefur kunnad hans Ordum ad trua, j so otruanlegre Grein. Vissulega hefur hann optsinnis hloted ad lijda mørg Skammar-Yrde af þeim vantruudum Gydingum, þo hefur hann samt þvi til Vegar komed, þad Keisarenn og hans Folk vard vid Velle lagt, og Borgenn so frelsud. Þar fyrer þa hefur hann vered eirn goodur Guds Astvinur, og eirn frabær forkostulegur Madur j Guds Anglite.

J Þridiu Grein, þa hefur hann eirnenn ad sijsla vidur þann Keisaradomenn j Babylon, þar spaaer hann ut af þeirre Babyloniskre Herleidingunne, þar ed Folked skyllde med straffast, og Jerusalem foreydd verda, af þeim Keisaranum til Babylon. Enn þad er hans mesta Kapp, ad hann hreyster og Hugsvalan veiter sinne epterkomande Þiood, j slijkre tilkomande Foreydslu og Herleidingu, so þad Folked skyllde ecke j Mishop nie j Aurvilnan falla, sem være þad nu med øllu endad og utgiørt um þad, og þad Christs Rijke munde nu ecke koma, og þad aller Spaadomar være nu so sem til einskis og øngvu nyter. O hvørsu aagiæta og yfergnæfanlega Predikan giører hann þar, þa hann seger ad Babylon skule þar j moot foreydast, og þeir Gydingarner lauser og kvitter verda j burt þadann, og til Jerusalem aptur koma, so ad hann utvijsar þad med fullu Metnadar Trauste j giegn Babylon, hvør ed være Nøfnenn þeirra Konganna sem Babylon skylldu foreyda, einkum þa ur Meden og Elamiten, edur Persia, enn sierdeilis þo þann Konungenn sem Gydingana munde lausa giefa, og þa styrkia til ad fara til Jerusalem aptur, sem var Cyrus, hvørn ad hann kallar þann Smurda Guds, þo laungu aadur fyrre enn þad nockurt Kongs-Rijke var j Persia. Af þvi, ad allt þetta þa giører hann eirna hellst Christs vegna, so þad hans Tilkoma, og þad tilsagda Rijked Nadarennar og Saaluhiaalparennar yrde ei fyrerlited, edur forgleymt fyrer Vantrunadar Saker, og mikels Mootgangs, og Oþolenmæde Folksins, so ad nu munde þad ad øngvu verda, og eige þyrftu þeir þess leingur ad vænta, helldur skylldu þeir miklu framar trua þad vissulegana komande vera.

Þetta hid sama eru nu þær Þriar Greinernar sem Esaias hefur hellst med Høndum.

Enn þa Skipun edur Hegdan hefur hann ecke ad hallda, þad ein sierhvør Greinenn annare epterfilge, og þad med sierlegum Capitulum, edur Blødum Bookarennar ut skyre, helldur er þad so sem samanblandad hvørt med ødru, so þad hann margt hvad hinnar Firstu Greinarennar meingar vid þa Adra og hina Þridiu Greinena, og sumtijdis þa handtierar hann fyrre þa Þridiu Greinena enn hina Adra. Hvørt þad er nu skied af þeim sem soddan Spaadom hafa skrifad, og til samans lesed (hvad ed sumer Menn þeir meina, þad eirnenn mune so skied vera j Psalltaranum) ellegar mune

hann sialfur hafa komed þvi so til Vegar, ad segia ut af eirne sierhvørre Greinenne, epter þvi sem þa hefur vidbored, og epter Atvikum, hvør Atvik edur Tilburder ecke eru alla Tijma samlijker, eda kunna hina sømu Skipan edur Hegdan ad hafa, annars þa veit eg ecke hvar fyrer ad þetta er so skied. Enn sodan Hegdan hefur hann, ad hina Firstu (so sem þa hellstu Grein) dregur hann og frammber j fra Uppbafenu allt til Enda, bæde framm fyrer þa adra og hina Þridiu Greinena, hvad oss hæfer og eirnenn ad giøra j vorre Predikan, so vorar hinar hellstu Greiner sie, ad finna ad vid Folked, og predika þvi þar jafnframt ut af Christo og hans Miskunseme, þo ad vier høfum nockud annad ad predika epter tiltækelegum Hætte, og epter þvi sem þa kann vid ad bera, so sem þa Madur talar ut af Tyrkianum edur Keisaranum.

Hier ut af kann nu hvør sem eirn hæglega ad formerkia þennann Spaadom, og sier þar jnne ad hegda, so þad Samblandan Maalsins ville hann ecke, nie giøre hønum noekurn Leida, so sem ad skie maa hina þa sem ecke eru slijku vaner. Vier høfum og epter fremstu Megne þar allann Vilia til haft, þad Esaias skyllde j goodu skilianlegu Maale ut-lagdur vera, þo þad hafe nu nockud so torvellt geinged, þvi hann er j Ebreskunne miøg vel Maale farenn, so þad ønnur stird Tungumaal fella sig ecke vel vid hans Maaltæke. Enn hvøria Nytseme ad þeir meige þar ut af hafa, sem Esaiam lesa, þad vil eg helldur ad Lesarenn reyne sialfur, helldur enn eg þad utskyre. Og hvør hann merker þad ecke, og vill eeke helldur formerkia þad, hønum hinum sama kiemur þad til lijtels ad hroosa þar miked ut af. Hann er ad sønnu fullur upp med lifande Huggunarsamlegar Liuflegar Maalsgreiner, fyrer allar Faraadar Samvitskur og Harmþrungenn Hiørtu. So eru þar og eirnenn jnne noogar þær Ognanar-Greiner og Skielfingar i giegn þeim Illskusamlegum, Draambsømum, Hardsvijrudum, Ogudlegum Mønnum, ef ad þad mætte nockud stoda.

Enn Esaiam hiaa Gydinga Foolke skalltu ei ødruvljs aalijta, enn so sem eirn foracktadann Mann, jaa, so sem eirn Sinnulausann Mann og Vitleysing, þviad fyrer so veglegann Mann sem nu hølldum vier hann, þa hafa þeir hann ecke hallded, helldur þa hafa þeir, so sem sialfur hann vottar j þeim Fimmtugasta og aattunda Capitula, skiælt sig ad hønum, og tert Fingurnar epter hønum, og allar hans Predikaner hallded fyrer Heimsku og Hiegoma, utann alleinasta miøg faaein good Guds Børn medal Folksins, sem var Konungurenn Ezechias, og noekrer adrer, og etc. Þviad þad var Vane þess Folks, ad hæda og spotta Spaamenn Guds, og hallda þa fyrer Athlæge, 2 Kong. B. 9. Hvad ed alla Tijma vel-flesta Predikara og Guds Þionustumenn skied hefur, og enn daglega skier, og skie mun hiedann j fraa: Þad kunna Menn og þar ut af ad formerkia, þad hann hefur eirna hellst strafad Lydenn vegna sinnar Afgudadijrdkunar: Hin ønnur Synda kin, sem var Drambseme, Ofdryckia, Fiedraattur, aahrærer hann varla þrisvar. Enn þann Offstækis Atrunadenn a þeirra sialfs-utvaldre Afgudadijrdkan og eigenlegum Verkum, og þad Traustsed sem þeir høfdu a Heidnum Kongum, og þeirra Sambande, þad sama straffar hañ naalega med Jafnade allt til Enda. Hvad er þvi Folke var olijd anlegt, þviad þad villde satt hafa ad segia j slijkum Maalefnum. Þar fyrer þa hefur hann ad sijdurstu af Kongenum Manasse Lijflaatenn vered, eins og annar Villumadur og Svikare, og (so sem þad Gydingarner segia) þa skal hann hafa vered medur eirne Søg j sundur sagadur.

 (o) 

Prophe-

# Prophetenn Esaias.

## I. Capitule.

Her talar Spaamadnrinn (I) um Ohlydne Judæ Barna vid Gud, og (II) um Svijvirdelegt Athæfe i gegn honum.

I. 1. Þesse er Syn Esaiæ, Amos Sonar, hvoria hann sa um Juda og Jerusalem, j Tijd þeirra, Usia, Jotham, Achas, og Ezechia, Konganna Juda.

2. Heyred þier Himnar! og þu Jord! hlusta med Eyrunum, þviad DROTTinn hann talar. Eg hefe Born upp fooſtrad og upphafed, og þau eru fallenn fra mier.

3. Nauted þad þecker sinn Herra, og Asnenn Jotu sijns Herra, Enn Israel þecker þad ecke, og mitt Folk skiniar þad eige.

4. O vei þvi Synduga Folke! þvi Folke mikellra Misgiorda, þess illskufulla Sædesins, (a) þeim skadsomu Bornum sem yfergiefa DROTTinn, þeir ed lasta hann hinn Heilaga j Israel, og ganga a Bak sier aptur.

(a) (Skadsomu) Þeir sem bæde med Raungum Kienningum, og Hiaa-Truar Epterdæmum villtu og fordiorfudu Folked.

5. Hvad skal ad lemia ydur leingur, first þier ganged þvi meir afvega? Allt Hofuded er siukt, allt Hiartad er veikt.

6. J fra Hvirfle allt til Ylia, er ecke neitt heilbrygdt a honum, helldur Saar, og Beniar, og Prote, sem ecke er samann teingslad, nie um bunded, og eige helldur med Vidsmiore mykt.

7. Ydvart Land er j eyde lagt, ydar Borger eru med Ellde upp brenndar, þeir Utlendu fortæra ydar Akurlende fyrer ydar Augum, og þau eru eydd, lijka sem þad er eydelagt er af Utlendskum.

8. Enn þad hvad enn nu er afgangs af Doottureñe Zion, þa er þad so sem Huskorn j Vijngarde, so sem eitt lijted Vakthus j Graskiers Garde, sem sa Stadur ad foreyddur er.

9. * Hefde ecke DROTTinn Zebaoth laated nockud lijted (b) epter verda af oss, þa værum vier ordner eins sem Sodoma, og lijka sem Gomorra. * Rom. 9, 29.

(b) (Epter verda) So er Guds Kyrkia ætijd af þeim Epterleifum sem epter verda af Folkenu.

II. 10. Heyred Ord DROTTins þier Hofdingiar af Sodoma! laat þier j Eyrum loda Logmaal Guds Vors, þu Lydur af Gomorra!

11. Hvar til skal mier Fioldenn ydvarra Fornfæringa? Seger DROttinn. Eg em mettur af Brenne-Offre Hrutanna, og af Feitenne Ale-Fiaarens, og ongva Lysting hefe eg a Blode Oxanna, Lambanna, og Hafranna.

12. Þa er þier komed hier jnn ad birtast fyrer mier, hvor krefur slijks af ydar Hende, þad þier ganged uppa minn Forgard?

13. Færed ecke leingur Mat-Offur so til forgiefens, þad Reykelse er mier Andstyggd, þær Tunglkomu-Haatijder og Þvottdagar, a hvorium þier komed til samans til Mædu og Angistar, fæ eg ecke lided.

14. Mijn Saala hun styggar vid ydar Tunglkomu-Helgum og Haatijdum, þær eru mier leidar vordnar, eg em þreyttur þær ad lijda.

15. Og þo ad þier utbreided ydar Hendur, þa byrge eg þo mijn Augu fyrer ydur, og þo ad þier bidied margfalldlega, þa heyre eg ydur þo

ecke,

ecke, þviad ydar Hendur eru fullar af Bloode.
16. Þvoed, hreinsed ydur, taked ydar Ills-kn-Breytne j burt fra mijnum Augum.
17. Laated af Illu. Læred gott ad giora. Leited epter Riettenum, hialped himim Nidurþrickta. Laated hinn Fødurlausa riett skie, og styrked Eckiunnar Maalefne.
18. Komed þa, og (c) eigunst Løg vid, seger DROTTinn. Þo ad ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær Snioshvijtar verda, Og þo þær sieu raudar sem Roos, þa skulu þær þo verda sem Ull.

(c) (Eigunst Løg vid) Ætijd er hallded, ad GUd giøre rangt, Vier erum Riettferduger, Þvi straffar þu oss so hardlega? Vier høfum slijkt Straff ecke forþient!

19. Ef ad þier vilied mier hlyda, þa skulud þier neyta Landsins Giæda.
20. Enn ef þier vilied þad ecke, og erud ohlyduger, þa skulud þier af Sverde upp etner verda. Þviad Munnur DROTTins hefur sagt þetta.
21. Hvørnenn geingur þad til, ad su Trufasta Borgenn er orden ad eirnre Hooru? hun var full Riettinda, Riettvijsenn byggde þar jnne, enn nu Mordingiar.
22. Þitt Silfur er orded ad Skume, og þinn Dryckur er Vatnsblandadur.
23. Þijner Høfdingiar eru affallner, og Samlagsmenn Þiofanna. Þeir þiggia giarnann aller Mutur, og leita epter Fie-Giofum, hinum Fødurlausu giora þeir øngvann Riett, og Maalefned Eckiunnar kiemur ei fyrer þa.
24. Þar fyrer seger DROttinn, DROttinn Zebaoth, sa Megtuge j Israel. O vei! Eg mun hugsvala mier a (d) Ovinum mijnum, og hefna mijn a mijnum Ovinum.

(d) (Ovinum) Þad er, Mijner Oviner Chaldei, og adrer Kongar, hliota ad hefna mijn a mijnu eigenn Folke.

25. Og eg mun snua minne Hende j mote þier, og hreinsa þitt Skum hid kloarasta, og allt þitt Tin j burt taka.
26. Og giefa þier Domara aptur, lijka sem þadur fyrre voru, og Raadherra, sem j Upphafenu. Þa muntu eirn Stadur Riettvijsennar, og eirn aagiætur Stadur kallast.
27. Zion hlytur fyrer Riettindenn frelsud ad verda, og hennar hiner Herteknu fyrer Riettlæted.
28. So ad þeir Yfertrodslumenn, og Synduger, verde til samans j sundur brotner, og þeir ed yfergiefa DROTTinn fyrer farest.
29. Þviad þeir munu til Skammar verda yfer þeim Eyke-Triaanum sem þier hafed Lysting til, og ad skammast ydar yfer þeim Jurtagordunum sem þier utvelied.
30. Þa, ed þier munud verda sem ønnur Eik med þurrum Laufblødum, og so sem annar Jurtragardur fyrer utann Votn.
31. Þa nær sa (e) Sterke mun verda sem annar Hør, og hans (f) Giørningur sem Elldgneiste, og mun so hvortveggia til samans uppbrenndt verda, so ad eingenn giete utslockt þad.

(e) (Sa sterke) Þad er, Þeirra Skurgod.
(f) (Giørningur) Er su Skurgodadijrdkan og Þionustugiørd sem aller Ogudleger hafa.

# II. Capitule.

Esaias talar (I) um Heidingiana ad þeir munu snua sier til Guds, og (II) um Utskufun Gydinganna.

I. Þetta er þad hvad Esaias, Sonur Amos, hann soa um Juda og Jerusalem.
2. A sijdurstum Døgum mun þad Fialled sem Hus DROTTens er (a) vissulega vera Hærra enn øll Fioll, og yfer allar Hæder upphafed verda.

(a) (Vissulega) Þad Menn þurfe ecke hingad nie þangad ad hlaupa, helldur vissulega verda GUd finnande, hvert a moote þeim ovissu Giørningum med hvørium Menn vilia þiona Gude.

3. Og aller Heidingiar munu þangad (b) skunda, og margt Folk þangad ganga, og segia, Komed, og laatum oss fara uppa Fialled DROTTENS, til Hussins Guds Jacobs, so þad hann kienne oss sijna Vegu, og þad vier gøngum j hans Stigum. Þviad af Zion

Zion mun Lögmaaled ut ganga, og Ord DROTTens af Jerusalem.

(b) (Skunda) So sem þa Vatn frammflytur med miklum Strangleika af sialfu sier.

4. Og hann mun dæma a medal Heidingianna, og straffa margt Folk. Þa munu þeir ur Sverdum sijnum smijda Ploog-Jaarn, og ur sijnum Spiotum (c) Kornsigde. Þviad eingenn Þiood mun upp hefia neitt Sverd j mote Annare, og munu ecke framar meir læra ad strijda.

(c) (Kornsigde) Edur Paal-Rekur.

5. Komed þier nu af Huse Jacobs, Laatum oss ganga j Liose DROTTins.

II. 6. Enn þu hefur þitt Folk, þad Hus Jacobs, fara laated, þviad þeir fremdu þad meir enn hiner j Uppgaungu Soplareunnar, og eru Daga Utvelieudur, lijka sem Philistei, og giora mörg annarleg (d) Börn.

(d) (Börn) Þad eru Uppa-Fundingar.

7. Hans Land er fullt af Silfre og Gulle, og Fiaarsioda hans er eingenn Ende, hans Land er fullt med Hesta, og hans Vagnar eru otelianleger.

8. Hans Land er eirnenn fullt af Skurgodum, og Verkenn sinna Handa þa tilbidia þeir, þad sem þeirra Fingur hafa smijdad.

9. Þar hneiger sig Alþijdann fyrer, þar lijtellæta sig fyrer Yfermennerner, þad sama muntu þeim ecke fyrergiefa.

10. Gack j Biarged, og fel þig j Jordunne, Fyrer þeirre Ognan DROTTins, og fyrer hans Dyrdsamlegu Tignarvellde.

11. Þviad öll þau haau Augu skulu nidurlægd verda, og hvorier mikels-haattar Menn eru, þeir munu hlioota sig ad lægia. Enn DROTTinn alleina mun haar vera a þeim Tijma.

12. Þviad Dagur DROTTins Zebaoth mun ganga yfer alla þá Drambsömu og Haau, og yfer allt þad sem upphafed er, so ad þad nidur lægest.

13. Eirnenn yfer alla haaa og upphæckada Cedrus-Vidu j Libanon, og yfer allar Eykur j Basan.

14. Yfer öll haa Fioll, og yfer allar upphafdar Hæder.

15. Yfer alla Haa-Turna, og yfer alla fasta Murvegge.

16. Yfer öll Skip j Hafenu, og yfer öll kostuleg Smijde.

17. So þad sig hlytur ad beygia hvörs sem eins Manns Upphæd, og sig ad lijtellæta þeir sem mikelshaattar Menn eru. Og DROTTinn mun alleinasta haar vera a þeim Tijma.

18. Og þeir Afguder munu þa med öllu utgiorder vera.

19. Þa munu Menn innganga j Biarg-Hellrana, og j Fylsne Jardarennar, fyrer þeirre Ognan DROTTins, og fyrer hans Dijrdarsamlega Tignar-Vellde, þa ed hann mun taka sig upp til ad skielfa Jordena.

20. A þeim Tijma mun hvör Madur j burt kasta sijnum Silfur og Gull-Skurgodum, (hvör ed þeir hofdu giora laated, ad tilbidia) j Holur Molldvarpanna og Musarbrædra.

21. So ad hann meige innganga j Stein-Sprungurnar og Biarg-Skorurnar, fyrer þeirre Ognan DRottins, og fyrer hans Dijrdarlegu Magtarvellde, þa ed hann mun taka sig upp til ad skielfa Jordena.

22. So vijked nu fra Mannenum sem hefur Andann j Nosunum, þvi þier vited ecke hvad mikels hann er metenn.

## III. Capitule.

Guds Straff vegna Syndarennar (I) a Yfervallds-Stettenne, og (II) Husstiornar Stettenne medal Gydinga.

I. Þvi sia! þad DROttenn DROttenn Zebaoth mun j burt taka af Jerusalem og Juda allar Nægter, alla Nægt Braudsins, og alla Nægt Vatnsins.

2. Þa sterku og Bardaga-Mennena, Yfer-Domara, Propheta, Sannsagnar-Menn, og Olldunga.

3. Hofuds-Menn yfer Fimmtijge, og ærlega Menn, Raadgiafa, og hyggna Handverks-Meistara, og vijsa Mælsku-Menn.

4. Og eg vil giefa þeim Ungmenne til Hofdingia, og þeir Barndomslegu skulu Drottna yfer þeim,

5. Og Folked mun Fioarploog hafa hvør a ødrum, og hvør sem eirn a sijnum Naunga, Og Æsku-Madurenn mun hrokast upp j moote þeim hinum Gamla, og sa Oærlege j moote þeim Heidarlega.

6. Þa mun hvør høndla sinn Bródur ut af sijns Fødurs Huse, þu hefur Klædnadenn, Vertu vør Hofdinge, hioalpa oss j þessare Ogiæfu!

7. Enn hann mun sveria a þeim Tijma, og segia, Eingenn Lækner er eg, hvorke er þar Braud ne Klæde j mijnu Huse, Setied mig ei til Hofdingia medal Folksins.

8. Þviad Jerusalem hun hrapar, og Juda liggur þar, med þvi, ad þeirra Tunga, og þeirra Giørningar eru a møte DROTTne, so ad þeir Mootstødu veita Augum hans Tignar-Velldis.

9. Þeirra Yferbragd vitnar um þa, og þeir hroosa af sijnum Syndum, lijka so sem þeir til Sodoma, og þeir (a) skyla þeim ecke. Vei Soalum þeirra, þviad þar med koma þeir sioalfum sier j alla Olucku!

(a) (Skyla) Þeir hroosa þvi openberlega, so sem nockrum Mannkoste, af hvøriu þeir ættu helldur ad skammast sijn, sem er þeirra Afgudadijrdkan, af hvøriu þeir nu hroosa, ad þad sie Guds-Dijrdkun, þad helter su Hroosun sem betra var ad þeigia yfer.

10. Seiged um þa Riettferdugu, ad þeim mune vel vegna, þviad Avextarins sinna Verka munu þeir neyta.

11. Enn Vei þeim Ogudlegum! þvi þeir eru Illskufuller, og þad mun þeim endurgollded verda, lijka sem ad þeir hafa forþient til.

12. Børn reka epter mijnu Folke, og Konur Drottna yfer þvi. Folk mitt! þijner Huggunar-Menn villa þig, og briota nidur þann Gøtustijgenn þar þu skallt ganga.

13. Enn DROTTinn stendur þar til Hægre Handar, og er uppstijgenn til ad dæma Lydenn.

14. Og DROTTinn kiemur til Domsins medur þeim ellstu sijns Folks, og medur sijnum Hofdingium. Þviad þier hafed þann (b) Vijngard foreydt, og þad Raan-Fie af Foatækum er j ydar Huse.

(b) (Vijngard) Þad er Guds Folk. cap. 5, 2.

15. Hvar fyrer nidur þricked þier mijnu Folke, og j sundur melied Foatækar Persónur, seger DROTTinn DROTTinn Zebáoth.

II. 16. Og DROTTinn hann seger, Þar fyrer, þad Dætur Zion eru Rijkeloatar, og ganga med upp reygdum Hoalse, med forpryddu Andlite, bruna framm og hovera, og hafa kostulega Sko a sijnum Footum,

17. So mun DROTTinn Hoarlausann giøra Hvirfelenn Dotturennar Zion, og DROTTenn mun þeirra Blygdun openbera.

18. A þeim Tijma mun DROTTinn j burt taka Prydena a þeirra kostulegum Skom, eirnenn Spennurnar.

19. Speingur, Festar, Uflida-Speingur.

20. Hufurnar, (c) Silkeskauted edur Koppbreimingarnar, Snururnar, Ilmunar-Hnottenn, Eyrna-Speingurnar.

(c) (Silke-Skaut) edur Hofud-Skart.

21. Hringana, Hoarfliettudu Bondinn.

22. Hoatijdar-Klædnadenn, Koapurnar, Skickiurnar, Pungana.

23. Speigelinn, Fyrer-Klæded, Lindann, Belltid.

24. Og þar mun jllur Daun fyrer sætann Ilm vera, og eitt lijtelshoattar Band fyrer godann Linda, og ber Skalle fyrer krusad Hoar, Fyrer sijda Skickiu þrangur Hæruseckur, allt soddann j Stadenn þinnar Pryde.

25. Þijn Alþijda mun fyrer Sverde falla, og þijner Bardaga-Menn j Strijde.

26. Og

26. Og hennar Borgarhlid munu syrgia og veina, og hun mun eymdarlega a Jordu sitia.

27. So þad Sio Konur munu a þeim Tijma grijpa eirn Mann, og segia, Sioalfar viliunn vier fæda oss og klæda, ad eins þa loattu oss epter þijnu Nafne kallast, so þad vor Smoan verde j burt fra oss tekenn.

## IV. Capitule.

Saalarheill og Velferd þeirra af Gydingum er Trudu a Christum.

A þeim Tijma mun (a) Kvistur DRottins kiær og virduglegur vera, og Avoxtur Jardarennar Tijguglegur og Fagur, hia þeim sem hioalpleger verda j Israel.

(a) Huggun þeirra Riettrwudu a Christum.

2. Og hvor þa epter verdur j Zion, og yfer=bliifur til Jerusalem, sa mun Heilagur kallast, hvor sa sem skrifadur er a medal þeirra sem lifa til Jerusalem.

3. Þa mun DROTTinn af þvo Saurendenn Dotturennar Zion, og þa Blood-Skulldena Jerusalem j burt reka fra henne, fyrer Andann, sa dæma skal, og eirn Elld upp tendra.

4. Og DROTTinn mun skicka yfer allar Byggingar Fiallsins Zion, og hvar ed hun er til samans søfnud Skij og Reyk um Daga, og þær Elldingar ed brenna um Nætur. Þviad þar mun ein Verndar=Hliif vera yfer ollu þvi hvad (b) Dijrdarsamlegt er.

(b) (Dijrdarsamlegt) Þad sem fyrer Gude er dyrlegt, so sem þeir Trundu.

5. Og mun ein Tialldbud vera til Forskyggnis, a Deigenum, fyrer Hitanum, og eitt Hæle og Skiol fyrer Stormvidrenu og Doggenne.

## V. Capitule.

(I) Um Vegsemd Gydinga Kyrkiu er hun hafde þeged af Gude; (II) Hennar Eymd, fyrer Saker Syndarennar; og (III) um hennar Spilling.

I. Nu vel! Eg vil mijnum Elskulega kveda eitt Kvæde mijns Fodur=Brodurs, ut af hans * Vijngarde. Minn Astvinur hefur eirn Vijngard j friosomu Takmarke.

* Matth. 21,33. Marc. 12.1. Luc. 20,9.

2. Og hefur gyrdt j krijngum hann, og medur Griote hladed, og Rootsett þar jnne kostulega Vijn=Kvistu. Hann uppbyggde eirnenn eirn Stopul, þar jnne, og grof eina Vijn=Pressu, þar nidur, og vonade, þad hann munde Vijnber af sier giefa, Enn hann gaf framm swr Vijnber.

3. Dæmed þier nu Borgar=Menn af Jerusalem, og þier Men Juda! mille mijn og mijns Vijngards.

4. Hvad skylldu Menn þa meira giora vid minn Vijngard, þad eg hefe ecke vid hann giort? Hvar fyrer hefur hann þa swr Vijn=Ber af sier giefed, þa eg vonade hann munde sæt Vijnber af sier giefa?

II. 5. Nu vel, eg vil kunngiora ydur hvad eg vil giora mijnum Vijngarde. Hans Veggur skal j burt takast, so þad hann foreyddur verde, og hans Gardur skal nidurbrotenn verda, so þad hann under Footum trodest.

6. Eg vil hann foreyddann liggia loata, so ad hann verde hvorke eriadur, nie upp skorenn, helldur so, ad þar vaxe Þystlar og Þyrnar, og vil Skijunum bioda, ad þau Doggve þar ei yfer.

7. Enn Vijngardur DROTTins Zebaoth er Israels Hws, og þeir Menn Juda hans oastudleg Plantan. Hann vonade epter Riettenum, Sioa þu! þa var þar Fiedroattur, Epter Riettlætenu, Sioa þu! þa var þar Klogumoal.

III. 8. Vei þeim sem samann draga eitt Hus til annars, og leggia eirn Akur til annars, þangad til ad þar er ecke meira Rum til, so ad þier einsamler eignest Landed.

9. Þad sama er fyrer Eyrum DROttins Zeba=

Zebaoth. Hvad gillder, ef ad þau enn morgu Husenn skulu ecke j Eyde leggiast, og þau hinu miklu og fogru standa j Eyde?

10. Þviad Tiju Akurlønd Vijngardsins skulu ecke giefa nema eina Skioolu, og eitt Trog Sædis skal giefa ad eins eirn Mæle-Ask.

11. Vei þeim sem snemma upp standa a Morgna til ad stunda uppa Dryckiuskap, og sitia allt til Nætur so ad þeim hitne af Vijnenu.

12. Og hafa Horpur, Gygiur, Bumbur, Pijpur og Vijn, j sijnum Giestabodum, og giæta ecke ad þvi (a) Verke DROttins, og hafa øngva Giætslu a hans Handaverkum.

(a) (Verke) Þad er, Hvad Gud bydur og vill hafa.

13. Þar fyrer mun mitt Folk ofyrersyniu hliota herleidt ad verda, og þess Villdarmenn Hungur ad þola, og þess Alþydu-Mugur Þorsta lijda.

14. Þar fyrer hefur Helvijted Saalunne vijdt j sundur sleiged, og Ginenu upp loked ꝋan als Maata, so ad nidur fare bæde þeirra Villdarmenn og Alþydu-Mugur, bæde þeirra enu Rijku og so Gladværu.

15. Ad hvor sem eirn hliote sig nidur ad beygia, og þad hvor sem eirn lijtellættur verde, og þad Augu Drambloatra nidurlægd verde.

16. Enn DROTTinn Zebaoth upphefiest j Riettindomum, og Gud sa hinn Heilage Helgadur verde j Riettlætenu.

17. Þa munu Lombinn gresia sier j þeirra Stad, og hiner utlendu munu næra sig j Eydemorkum (b) Feitingianna.

(b) (Feitingianna) Þad er, Þeirra Rijku, sem utdrifner eru, og hliota ad laata sitt Gots j Eyde epter sig.

18. Vei þeim sem samann reyra sig med Lygennar Bondum, rangt ad giora, og med Bondum Vagnanna til ad syndga, og segia,

19. Laat snart og braadlega koma hans Verk, so ad vier siaaum þad, Laated fara og framm koma Raadagiord hins Heilaga j Jsrael, so ad vier verdum varer vid þad!

20. Vei þeim, hvorier ed kalla hid Vonda Gott, og þad hid Gooda Vondt, þeir ed af Myrkrunum giora Liosed, og ut af Liosenu Myrkred, þeir ed giora surt af Sætu, og ut af Sætu hid Sura.

21. Vei þeim, hvorier j hiaa sialfum sier eru vijser, og hallda sig sialfa forsiaala.

22. Vei þeim, sem Kappar eru Vijn ad drecka, og Strijdsmenn til Dryckiuskapar.

23. Þeir sem segia þa Ogudlegu riett ad hafa, fyrer Fie-Giafa saker, og Riettarfarenu hinna Riettvijsu j burt snua fra þeim.

24. Þar fyrer, lijka so sem þad Elldslogenn foreyder Straaenu, og Logenn Agnernar j burt tekur, so mun þeirra Root forrotna, og þeirra Greiner uppfliuga lijka sem annad Molldar-Ryk. Þviad þeir forakta Logmaal DROTTins Zebaoth, og lasta Rædu hins Heilaga j Jsrael.

25. Fyrer þad sama er Reide DRottins Grimm ordenn yfer hans Folk, og breider sijna Hond ut yfer þa, og leggur a þa, so þad Fiollenn skialfa, og þeirra Lijkamer eru eins so sem Saurenn a Strætum ute. Og j ollu þessu þa lætur hans Reide enn ecke af, helldur er hans Hond enn nu utriett.

26. *Þviad hann mun einu Strijds-Merke utfleygia j Fiarlægd medal Heidingia, og þa hina somu hingad locka j fra Enda Jardarennar.

* Þetta eru þeir Chaldei.

27. Og sia þu! ad skiott, og skyndelega, þa koma þeir hingad, og þar er eingenn þreyttur nie veikur medal þeirra, ongvann þeirra syfiar nie sæker Svefn, og ongvum þeirra losnar Bellte fra Lendum, og ecke eins þeirra Skoo-Þvengur slitnar.

28. Þeirra Skeyte eru hvoss, og aller þeirra Bogar eru uppspannader. Hoofar þeirra Hesta eru sem Hellusteinar, og Hiolenn þeirra Vagna so sem Storm-Vidre.

29. Þeir grenia sem Leon, og so sem Ung Leon þa grenia þeir, þeir munu frammbruna, og

na, og Herfaanged griipa, og þad a burt flytia, so ad eingenn fær þvi fordad.

30. Og a þeim Tijma munu þeir dynia yfer þa so sem Sioor. Nær ed Landed verdur aalited, sioa þu! ad þa er þad mirkt af Sorgum, og Lioſed ſkijn ecke meir ofan yfer þa.

## VI. Capitule.

Esajæ (I) Vitran, og (II) Køllun.

1. I þvi Aarenu þegar Usias Kongur andadest, saa eg DROTTinn sitia uppa einum hvafum og upphoſdum Stool, og Falldur hans Klæda uppfyllde Mustered.

2. Seraphim stodu yfer honum, hvør þeirra hafde Sex Vænge, med tveimur huldu þeir sijna Fætur, og med tveimur flugu þeir.

3. Og hvør kallade til annars, og sagde, * Heilagur, Heilagur, Heilagur, er DRottinn Zebaoth! Øll Lønd eru full hans Dyrdar!

* Openb: B: 4, 8.

4. So ad Droottar-Trien ſkulfu af Rauſt þeirra Kalls, og Huſed vard fullt af Reyk.

5. Þa sagde eg, Vei mier, eg forgeing! þviad eg hefe Saurugar Vøreɾ, og by a medal þess Folks sem hefur saurugar Varer, þviad eg hefe hann Kongenn DROTTenn Zebaoth sied med mijnum Augum.

6. Þa flaug eirn þeirra Seraphim til mijn, og hafde eitt gloandi Kol j Hendenne, hvort ed hann med Tongenne tok af Alltarenu.

7. Og aahrærde minn Munn, og sagde, Sioa þu, Hier eru þijnar Varer med aahrærdar, so ad þijnar Misgiorder verde j fra þier teknar, og þijnar Synder sieu forlijktar.

II. 8. Og eg heyrde Rodd DROTTins, þad hann sagde, Hvorn ſkal Eg ut senda? Hvør vill Vor Sendebode vera? Enn eg sagde, Hier em eg, send þu mig.

9. Og hann sagde, Far þu af Stad, og seg þu til Folks þessa, * Heyred þad, og ſkilied þad ecke, Sioaed þad, og formerked þad ecke.

* Matth. 13, 14. Marc. 4, 12. Luc. 8, 10. Joh. 12, 40. Gb: P: 28, 26. Rom. 11, 8.

10. Herdtu Hiarta Folks þessa, og laat þeirra Eyru þyck-heyrd verda, og forblinda þeirra Augu, so ad þeir sioae ecke med sijnum Augum, nie heyre med sijnum Eyrum, nie ſkilie þad med sijnu Hiarta, og snueſt, og verde heilbrigder.

11. Enn eg sagde, DROTTinn! Hvørsu leinge? Hann sagde, Þangad til ad Borgernar verda foreyddar, fyrer utann Inubyggiara, og Husenn Folklaus, og þad Landed liggur med øllu j Eyde.

12. Þviad DROTTinn mun Folked j Fiarlægd burt laata, so þad Landed foreydt verde.

13. Þo ſkal enn nu sa Tijunde Hlutur þar jnne vera, þviad þad mun j burt fært og foreydt verda, Lijka sem ønnur Eyk og Lindartrie, hvøriar ad hafa Stofnenn, þo ad þeirra Lauf-Blod verde af ſkiekenn, Eitt Heilagt Sæde mun soddann Stofn vera.

## VII. Capitule.

Achas Konungur i Juda er hughreyſtur mote Rezin Syrlands Konunge, og Pekah Israels Konunge.

Þad ſkiede j Tijd Achas, Sonar Jotham, Sonar Usiæ, Kongsins j Juda, ad Rezin, Kongurenn j Syria, og Pekah, Sonur Remalia, Israels Kongur, fooru upp til Jerusalem, til ad beriast j mote henne, enn eige gaatu þeir hana yfer unned.

2. Þa vard þad Huse Davids kunngiørt, Þeir af Syria forlaata sig uppa Ephraim, þa ſkalf Hiartad j honum, og Hiartad hans Folks, Lijka sem þa Trien j Skogenum ſkialfa af Vinde.

3. Enn DROTTinn sagde til Esaja, Gack þu ut j mote Achas, þu og þinn Sonur SearJasub, til EndaVatnsrennunnar, vid þad effta Fiſkedijked, ut vid Veigenn hiaa Akrenum Litarans.

4. Og seg til hans, Vara þig og vert kirr, hrædst þu ecke, og þitt Hiarta sie Ottalaust, fyrer þessum tveimur riukande Kolbrondum,

sem er fyrer Reide Rezins, og þeirra af Syria, og Sonar Remalia.

5. Ad þeir af Syria, med Ephraim, og Syne Remalia, hafa eina vonda Raadagiord samsett j moote þier, og segia.

6. Vier vilium upp fara til Juda, vekia þa upp, skipta þeim med oss, og setia Son Tabeals til Kongs þar jnne.

7. Þvi so seger DROttinn DROttinn, Þad skal ecke so standa, nie so verda.

8. Helldur lijka sem þad Damascus er Hofud j Syria, so skal Rezin Hofud vera til Damasco. Og innann Fimm og Sextiju aara þa skal þad med Ephraim utgiort vera, so ad þeir skulu ecke leingur eitt Folk vera.

9. Og lijka sem þad Samaria er Hofud j Ephraim, so skal Sonur Remalia Hofud vera j Samaria. Ef þier trued ecke, munud þier ecke vidstandast.

[Texte so sem Pistill a Bodunar-Dag Mariæ.]

10. Og DROTTinn talade enn aptur til Achas, og sagde.

11. Kref þu þier eins Teikns af DRottne Gude þijnum, hvort þad er nidre j Under-Diupunum, edur a Hædum uppe.

12. Enn Achas sagde, Ecke vil eg þess krefia, uppa þad eg freiste ecke DRottins.

13. Þa sagde hann, Nu vel, Þar fyrer heyred þier af Huse Davids, Hvort er ydur þad forlijted, ad þier giored Monnunum Angur, ad þier hlioted eirnenn ad angra minn Gud?

14. Fyrer þann skulld mun DROTTinn sialfur giefa ydur eitt Teikn. Sioa þu, *Ein Jungfru er Oliett, og mun eirn Son fæda, Hann mun hun kalla Jmmanuel,

*Matth. 1, 23. Luc. 1, 27. 31.

15. Smiors og Hunangs mun hann neyta, so ad hann kunne ad burtkasta þvi Vonda, og utvelia hid Gooda.]

16. Þviad fyrr enn þad Sveirnenn lærer ad burtkasta þvi Vonda, og utvelia hid Gooda, þa mun þad Landed, fyrer hvoriu þu hræddest, yfergiefed verda af sijnum Tveimur Kongum.

17. Enn DROTTinn mun yfer þig, yfer þitt Folk, yfer þijns Fodurs Hus, þa Daga koma laata, hvorier þad ecke hafa komed j fra þeim Tijma þad Ephraim skilde sig j burt fra Juda, fyrer þann Kongenn til Assyria.

18. Þviad a þeim Tijma mun DRottinn blystra ad Flugunum vid Endann Vatnanna j Egyptalande, og ad Bijflugunum j Landenu Assur.

19. So ad þær kome, og legge sig allar nidur vid þa þurru Lækena, og j Biarg-Skorurnar, og inn j alla Vidar-Runna, og j alla Buska.

20. A þeim sama Tijma mun DROttinn afraka Haared af Hofdenu og Footunum, og burttaka Skiegged med einum (a) leigdum Haar-Knijfe, sem er, fyrer þa sem eru hinumeigenn Vatnsins, sem er fyrer Kongenn af Assyria.

(a) (Leigdum) Kongurenn af Assyria kallast leigdur Haar-Knijfur, þviad Gud hefur hann um Stundarsaker til þess, ad straffa sitt Folk.

21. A þeim sama Tijma mun eirn Mann ala Fiolda Kua, og tvennar Hiarder.

22. Og mun hafa so margt ad miolka, þad hann mun Smiors neyta, þvi hvør hann blijfur epter j Landenu, sa mun Smior og Hunang eta.

23. Þviad þad mun skie a þeim Tijma, ad þar hvar ed nu standa Þusund Vijntrie, Þusund Silfurpeninga verd, þar munu vera Þyrnar og Þistlar.

24. So ad Menn meige med Skeytum og Bogum þangad ganga. Þviad (b) j ollu Landenu munu Þyrnar og Þistlar vera.

(b) (J ollu) Þad er, Landed skal liggia j Eyde, ann þess Folks sem þad uppvinne.

25. So

25. So þad til allra þeirra Fiallanna sem Vant var ad eria og plægia umhverfis, þa kunna Menn eirnenn ecke ad koma, fyrer Hrædslu Þyrnanna og Þistlanna, helldur munu þar Uxar hafder, og Menn munu loata Saude þar yfer renna.

26. Og DROTTinn sagde til mijn, Tak þier stoort Brief, og skrifa þar uppa med Mannsins Stijl, Ræned fliott, Skipted skiott!

27. Og eg took til mijn Tvo trulynda Votta, Prestenn Uriam, og Sachariam, Son Jeberechia.

28. Og gieck til eirnrar Spoadoms-Konu, hun vard oliett, og fædde Son, Og DRottinn sagde til mijn, Kalla þu hann, Ræned fliott, Skipted skiott!

29. Þviad oadur enn þad Sveirnenn kann ad kalla, Kiære Fader! Kiære Moder! skal Magtenn Damascus, og Herfoanged Samariæ burt teked verda, fyrer Kongenn til Assyria.

30. Og DROTTinn talade enn framar vid mig, og sagde.

31. Af þvi, ad þetta Folk flytur Vatned til Siloah, sem hoofliga rennur, og treyster Rezin, og Syne Remalia.

32. Sioa! þar fyrer mun DROTTinn yfer þa koma loata straung og mørg Votn (c) Floodsins, sem er Kongenn af Assyria, og alla hans Vegsemd, so þad hann mun fara yfer alla þeirra Læke, og ganga yfer alla þeirra Arbacka.

(c) (Floodsins) Þad er Euphratis, þviad Landed Assyria liggur hinumeigenn þess Fliots.

33. Og þeir munu innbriotast j Juda, sveima þar, og yfer um fara, allt þar til ad þad tekur þeim under Hoku, og þeir munu sijna Vænge ut breida, so ad þeir fylle þitt Land, O Immanuel! so vijdt sem þad er til.

# VIII. Capitule.

Menn eiga ad treysta GUde Alleina, og ecke Mønnum.

Vered Iller, þier Lyder, og renned þo undan. Heyred þier þad aller þier sem j fiarlægum Londum erud. Herklæded ydur og flyed þo undan, Bued ydur ut, og vered þo a Flootta rekner.

2. Alykted eina Roadagiord, og þar verde þo eckert af, hafed Samtok, enn þad hafe þo øngvann Stad, þvi hier er Immanuel.

3. Þvi so seger DROTTinn til mijn, Lijka sem ad tæke hann j Hond mier, og segde mier til, þad eg skyllde ei ganga a Vegum Folks þessa, og sagde.

4. Eige skulud þier segia, (a) Soattmoale, þetta Folk kann af øngvu ad segia nema Soattmoala, Vered i so Ottaslegner, og ecke so kvijdasamer, sem þeir eru.

(a) (Soattmoale) Gydinga Lyd ur trude Gude ecke, og bundu þar fyrer Soattmoala og Vinoattu vid Heidingiana, umkring sig, sem þo voru þeirra Fiandmenn.

5. Helldur helged DROttinn Zebaoth, loated hann vera ydar Hrædslu og Otta.

6. Þa mun hann ydur til Helgunar vera. Enn eirn * Asteitingar Steirn, og ein Hneixlunar Hella þeim Tveimur Husum Israels, til eirnrar Snoru og Hropunar þeim Borgar-Mønnum til Jerusalem. * Luc. 2, 34. Rom. 9, 33. 1 Petr. 2, 7.

7. So þad marger af þeim reke sig þar a, falle, sundurmeriest, bundner og herteknir verde.

8. (b) Bitt til samans Vitnisburdenn, og innsigla Logmoaled mijnum Læresveinum.

(b) (Bitt) Logmoaled skilst ecke, og er ofullkomed, hvar sem Truenn ecke er, sem giører oss ad Christi Læresveinum. Hebr. 2, 13.

9. Þviad eg vona uppa DROTTinn, hvør ed sitt Andlit hefur tilbyrgt fyrer Huse Jacobs, Enn eg bijd epter honum.

10. Sioa þu, * Hier em eg, og þau Børn sem DROttinn hefur mier giefed, til Teikns og Stoormerkis j Israel, af DROTTine Zebaoth, hvør ed bygger uppa Fiallenu Zion. * Ebr. 2, 13.

11. Enn nær ed þeir segia til ydar, Þier verded ad spyria Sannsagnar-Meanena ad, og

hina sem af Teiknum raada, hvorier ed þvagla og þræta (þa seged) Skal ecke Folked spyria sinn GUD, Edur er þad riettara, ad (c) spyria hina Daudu fyrer þa hina Lifondu? Ja, epter Logmaalenu og Vitnisburdenum.

(c) (Spyria þa Daudu) Þad er, Dauda Hlute af daudum Lærendum.

12. Enn ef þeir segia ecke þad sama, þa munu þeir ecke Morgun-Liosed hafa.

13. Helldur munu þeir fara um kring j Landenu hardt slegner og Hungrader. Enn nær ed þeir lijda nu Hungur munu þeir reidast, og bølva sijnum Konge, og sijnum GUde.

14. Og munu gapa upp yfer sig, og lijta nidur fyrer sig a Jordena, og ongvann Hlut finna utann Harmkvæle og Mirkur.

15. Þviad þeir eru Mædder j Harmkvælunum, og fara Viller j Mirkrenu.

16. Þviad þar mun vel ein onnur Mæda vera sem þeim giorer Mein, helldur enn su sem a þeim fyrre Tijmonum var, þa ed þad gieck so hooglega til j Landenu Sebulon, og j Landenu Naphtali, og þar epter vard enn þyngra, vid Veigenn Sioafarins, þessumeigenn Jordanar, j þeirre Heidnu Galilea.

# IX. Capitule.

Esaias talar um Christi Personu og Embætte.

Þad * Folk sem gieck j Mirkrunum sier Eitt Lioos miked, og yfer þeim sem byggia j mirkvo Lande skijn þad kloart. * Matth. 4, 16.

2. Þu fiolgar þa enu Heidnu, þar med eyfur þu ecke Gledena. Enn fyrer þier munu Menn gledia sig, Lijka sem ad Menn eru glader a Kornskeru-Tijmanum, lijka sem ad menn eru glader, nær ed Menn utskipta Herfoange.

3. Þviad þu hefur j sundur broted Oked þeirra Byrda, og Vondenn þeirra Herda, og Stafenn þeirra sem þa framm dreif, lijka sem j Tijd Madian.

4. Þviad allt Strijd med Stiriolld, og Bloodugum Ræflum, mun brenndt, og med Ellde foreydt verda.

5. Þviad * oss er Eitt Barn fædt, ** Eitn Sonur er oss giefenn, hvors Hofdingiadomur ad er aa hans Herdum. Og hann heiter, Undarlegur, Raad, Kraptur, Hetia, Eylijfur Fader, Fridar-Hofdinge.

* Luc. 2, 7. 11. Gal. 4, 4. ** Joh. 3, 16. 1 Joh. 4, 10.

6. So ad hans Hofdingiadomur verde mikell, og a Fridnum eingenn Ender, a þeim * Stolnum Davids, og hans Kongsrijke, ad hann tilreide þad og efle, medur Dome og Riettvijse, hiedan j fra, og ad eylijfu. Slijkt mun giora Vandlæting DROTTINS Zebaoth. * Luc. 1, 32, 33.

7. DROTTinn hefur eitt Ord utsendt j Jacob, og þad er nidur falled j Jsrael.

8. So ad þad sama skal formerkia allt þad Folk Ephraim, og þeir Jnnbyggiarar til Samaria, þeir ed segia j Metnade og stolltu Sinne.

9. Tigulsteinar eru nidur fallner, enn vier villium med þeim hoggnum Steinum upp aptur byggia, Morber-Trie eru af hoggvenn, þa vilium vier Cedrus-Vidu þar j Stadenn setia.

10. Þviad DROTTinn mun Herlid Rezins forhefia j moote þeim, og þeirra Ovine til samans draga.

11. Þa Syrlendsku ad framann, og þa Philisteos a Bak til, so ad þeir jete Jsrael med fullum Munne. J ollu þessu þa lætur hans Reide enn ei af, hans Hond er enn nu utriett.

12. So snyst Folked og ecke ad helldur til hans sem þad slær, og skeyter ecke um DRottinn Zebaoth.

13. Þar fyrer mun DROTTinn burthoggva af Jsrael bæde Hofuded og Halann, bæde Kvistenn og Tried, a einum Deige.

14. Hiner gomlu Heidurs-Menn eru Hofuded, enn þeir Spaamenn sem Lyge kienna eru Halenn.

15. Þviad Leidtogar Folks þessa eru Taalsmenn, og þeir ed laata leidtoga sig eru glatader.

16. Þar fyrer kann DROTTinn ecke ad glediast yfer þeirra Yngismonnum, nie þeirra Fodurleysingium og Eckium miskunsamur ad vera.

verà. Hviad allersamann eru þeir Hræsna-
rar og Jllmenne, og allra Munnur talar
Heimsku. J ollu þessu lætur Hans Reide eige
af, Hans Hond er enn nu utriett.

17. Hviad þad Ogudlega Athæfed er upp-
tendrad lijka sem Elldur, og foreyder Þyr-
num og Þyslum, og logar so sem j þickvum
Skoge, og giefur af sier hoafann Reyk.

18. Hviad j Reide DROttins Zebaoth er
Landed formirkvad, so þad Folked er lijka sem
annar Ellds-Matur, eingenn væger odrum.

19. Ef ræna þeir til Hægre Handar, þa
lijda þeir Hungur, matist þeir til Vinstre
Handar, þa verda þeir ei sadder.

20. Hvor einn etur Kioted sijns Armleggs,
Manasses Ephraim, Ephraim Manasse, og
þeir baader til samans j mote Juda. J ollu þes-
su lætur Hans Reide ei af, Hans Hond er enn
nu utriett.

## X. Capitule.

Her talast (I) um Assurs Dramb og Metnad; og
(II) Eydelegging.

I. Vei þeim Skriftlærdu! sem giora rong
Log, og þeim ed ranga Urskurde skrifa.

2. So ad þeir halle Moalefnum Foatækra,
og Yfergang veite j Riettarfare Lijtelmagnaña
a medal mijns Folks, so þad Eckiurnar hliota
þeirra Roan-Fie, og Fodurleysingiarner þeirra
Herfoang ad vera.

3. Hvad vilied þier tilgiora a þeim Deige
Vitlunareñar og Oluckuñar, sem af Fiarlægd
kiemur? Til hvors vilied þier flya Hioalpar ad
leita? Og hvar vilied þier ydar Vegsemd loata.

4. So ad hun verde ecke nidur beygd medal
hinna Herteknu, og falle medal þeirra sem eru
ihel slegner? J ollu þessu lætur Hans Reide enn
ei af, Hans Hond er enn nu útriett.

5. O vei Assur! sem er Vondur minnar
Reide, og hans Hond er Stafur minnar
Bræde.

6. Eg vil utsenda hann j mote eirne Hræs-
nes-Þiod, og skipa honum j mote þvi Folke
minnar Reide, so ad hann ræne þad, og ut-
skipte þvi, og under Footum trode þad, so sem
annann Saur a Strætum.

7. Þo ad hann þeinke þad ecke so, og hans
Hiarta hugleide þad ecke a þann Veg. Hell-
dur er hans Hiarta reidubued til ad afmoa, og
foreyda eige allfoau Folke.

8. Hviad hann seger.

9. Hvort eru mijner Hofdingiar ecke aller
Kongar? Er ecke Calno so sem Charchemis?
Hvort er Hamath ecke so sem Arpad? Er ecke
Samaria lijka sem Damascus?

10. Lijka so sem þad mijn Hond hefur fun-
ded Kongarijkenn Afgudanna, hvorra Afgu-
der þo oflugre voru enn þeir sem j Jerusalem og
Samaria eru.

11. Hvort skyllde eg ecke giora vid Jerusa-
lem, og hennar Afgude, lijka sem þad eg hefe
giort vid Samariam og hennar Afgude?

II. 12. Enn nær ed DROTTenn hefur
frammkvæmt oll sijn Verk a Fiallenu Zion og
til Jerusalem, þa mun eg vitia Avaxtarins
þess Drambsama Kongsins til Assyria, og
Þrydennar hans dramblaatra Augna.

13. Þar fyrer, ad hann seger, Eg hefe þetta
frammkvæmt fyrer Krapt minna Handa, og
med mijnum Vijsdome, þviad eg em hygginn.
Eg hefe Londunum a annann Veg j sundur
skipt, Og þeirra Aftektum rænt, Og lijka sem
eirn Volldugur Mann Innbyggiarana ad
Velle lagt.

14. Og mijn Hond hefur funded Folked
lijka sem annad Fugls Hreidur, so þad eg hefe
ollum Londum til samans safnad, lijka sem þa
Egg safnast, þau ed epterskilenn eru, so ad ein-
genn hrærde eina Fiodur, eda geyspade, eda
andade a mote mier.

15. Hvort fær Oxenn nockud hroosad sier j
moote þeim sem med henne hoggur? Edur
Sogenn troassad j mote þeim sem med henne
sagar? Lijka sem ed sa moa hroosa, sem (a)
Stafenn bæde ber og upp hefur, og ber hann
so liettelega sem være hann eckert Trie.

(a) (Stafenn) Pad er, Audvelldara er Gude eirn Tyranna upp ad taka, helldur enn ofs Reyrstaf, edur Grasstraa, sem ecke er Trie.

16. Par fyrer mun DROTTinn DRottinn Zebaoth senda Megurd a medal hans Feitingia, og hans Vegsemd mun hann upptendra, so þad hun mun brenna lijka sem Elldur?

17. Og (b) Liosed j Jsrael mun vera eirn Elldur, og hans hinn Heilage mun eirn Ellds-Loge vera, og mun hans Pyrna og Pysla uppbrenna og foreyda a einum Deige.

(b) (Liosed) Pad er, Gud, j Mustere Jerusalem.

18. Og su Fegurdenn hans Skoogar og Vijdlendis skal ad ongvu verda, J fra Saalunne allt uppa Hollded. Og mun so foreydast og burt hverfa.

19. Ad þau Trien hans Skoogar, sem epter eru, meige talenn verda, og eitt Barn meige þau uppskrifa.

20. A þeim Dogum munu þeir sem epter eru ordner j Jsrael, og þeir sem undann komast af Huse Jacobs, treysta ecke leingur uppa þann sem a þa leggur, helldur munu þeir treysta uppa DROTTinn þann Heilaga j Jsrael, j Sannleika.

21. Þeir sem epter eru vordner munu snuast, Jaa, þeir sem yfer blijfa j Jacob, til Guds hins Ofluga.

22. Þvi* þo þitt Folk, o Jsrael! sie lijka sem Sioafar Sandur, þa skulu þo þeir umvender verda, sem afgangs eru af þvi enu sama. Þviad þegar Fordiorfunenn er stillt, þa mun yferfliotanlegt Riettlæte koma.

* Rom 9, 27.

23. Þviad DROTTinn DROTTinn Zebaoth skal eina Fordiorfun ganga lаata. Enn stilla þa somu þo j ollu Landenu.

24. Par fyrer seger DROttinn DRottinn Zebaoth, Ottast þu ecke mitt Folk! þad sem til Zion bygger, fyrer Assur. Hann mun þig med Stafnum sloa, og sinn Staf upphefia j mote þier, lijka sem skiede a Egyptalande.

25. Þviad þad er um eina miog stutta Stund ad giora. Pa mun mijn Pyckia og mijn Reide yfer þeirra Misgiordum eirn Enda hafa.

26. Pa mun DROTTinn Zebaoth uppvekia yfer hann eina Svipu, lijka sem j Slagenu Madian, a Biargenu Oreb, og hann mun sinn Staf, þann ed hann j Hafenu hafde, upp hefia, lijka sem a Egyptalande.

27. A þeim Tijma mun hans Byrde af þijnum Herdum vijkia hlioota, og hans Anaudar Ok af þijnum Halse, þviad Oked mun af Feite j sundur (c) morkna.

(c) (Morkna Eins og Ureun ver fra Okeun, þa hann verdur feitur og sterkur, so hann sundur brytur Oked so sem annad fued Reyp.

28. Hann kemur (laat sem þad so sie) til Aiath, hann fer j giegnum Migron, hann velur sitt Herfolk til Michmas.

29. Þeir fara framm hiaa vorum Herbudum j Geba, Rama hun skielfest vid, Gibeath Sauls j burt flyr.

30. Þu Dotter Gallim! æptu hoatt, Hygg ad Laisa, þu hin Faatæka Anathoth.

31. Madmena vijkur undann, þeir Borgarar til Gebin efla Stirk.

32. Kann vera Menn blijfe eirn Dag til Nob, Pa mun hann hræra Hond sijna j moote Fiallenu Dætranna Zion, og j moote Jerusalems Hæd.

33. Enn sioa þu! þad DROTTJNN DROTTinn Zebaoth mun Greinernar med Vallde af snijda, og þad hvad hoatt upp stendur stytta.

34. So ad þad sem hoatt er mun nidur lægt verda, Og sa hinn þickve Skogurenn mun medur Joarne um koll hoggvenn verda, og Libanon mun falla fyrer þann hinn Megtuga.

# XI. Capitule.

Esaias spaaer um Christi Ætt, Personu, Embætte, og Velgiorninga vid Heidnar Þioder og Gydinga.

Texte so sem Pistell a Vitiunar Hatijd Mariæ.

Og þar mun Eirn * Vondur upp renna af Kine Jesse, og Eirn Kvistur af hans Root mun Avoxt færa. * Opinb: Book: 22, 16.

2. Yfer hvorium þad hvijla mun Ande DROTTins, Ande Vitskunnar og Skilningsins, Ande Roadsins og Styrkleiksins, Ande Þeckingarennar og Otta DROttins.

3. Og hans Ilmur mun verda j Otta DROTTins, hann mun ecke dæma epter þvi sem hans Augu sioa, og ecke straffa epter þvi sem hans Eyru heyra til.

4. Helldur mun hann med Riettvijse dæma hina Foatæku, og medur (a) Dome hyrta þa Aumu j Landenu. Og * hann mun sloa Jordena med Vende sijns Munns, og med Anda sinna Vara jhel sloa hina Ogudlegu.

* 2 Thess. 2, 8.

(a) (Dome) Hann mun giora þa Riettlaata fyrer Noadena, og þo samt laata fyrer Krossenn straffast Þann epter veranda Gamla Adam j Holldenu, og þad heiter ad straffa med Dome, þad er ecke j Afefd, edur Reide, helldur forsioalega, og til hins besta.

5. Riettlæt: d mun vera Bellte hans Lenda, og Truann Lindenn hans Nijrna.]

6. Ulfarner munu byggia hioa Lombonum, og Pardus Dyrenn munu liggia hioa Hofrunum, Eitt Smoabarn mun Koalfa og ung Leon, og Alefie til samans reka.

7. Kyr og Byrner munu j Grashaga ganga, so þad þeirra Ungar hvijlest hvor hia odrum, og Leonenn munu Hey eta sem Naut.

8. Og eitt Briostbarn mun leika sier yfer Smugu Nodrunnar, og þad Barn af Brioste er vaned mun stinga sinne Hende j Bæled Basilisci.

9. Og Menn munu hvorge Skada nie Fordiorfun giora a mijnu Heilogu Fialle. Þviad Landed er fullt af Kynningu DROttins, lijka sem ad være þad huled med Votnum Sioafarins.

10. Og þad mun skie a þeim Tijma, þad * Rootenn Jesse, sem stendur Folkenu til Strijdsmerkis, ad epter honum spyria Heidnar Pioder, og hans Hvijld mun vera dijrdleg. * Rom. 15, 12.

11. Og a þeim Tijma mun DROTTinn j annad sinn sijna Hond utrietta, so ad hann foae þad sem Afgangs er sijns Folks, þad epter er orded fra þeim j Assyria, Egyptskum, Pathros, Morlendskum, Elamitum, Sinear, Hamath, og fra Eyunum Sioafarins.

12. Og hann mun eitt Strijdsmerke uppsetia medal Heidenna Pioda, og saman safna þeim utreknum af Israel, og hina j sundur dreyfdu af Juda til samans leida, ur þeim Fiorum oattum Jardarennar.

13. Og sa Ovinskapurenn vid Ephraim mun Enda taka, og þeir Oviner Juda munu afmoader verda, so þad Ephraim hate ecke Juda, og þad Juda sie ecke j mote Ephraim.

14. Enn þeim Philisteis i mote Vestrenu munu þeir a Hoals leggiast, og ræna þa alla sem j moote Austrenu bua, Edom og Moab munu utbreida sijnar Hendur a moote þeim, Børn Ammon munu hlydug vera.

15. Og DROTTinn mun fyrermæla Straumum Sioafarins j Egyptalande, Og hann mun sijna Hond laata yferganga Vatned med sijnum sterkum Vinde, og sloa þa Sio Vatnsstraumana, so ad Menn meige þar med Skom j giegnum ganga.

16. Og hann mun Vegurenn vera þeim sem epter eru af hans Folke, þad epter er orded af þeim Assyriis, lijka sem þad skiede Israel a þeim Tijma þa þeir utgeingu af Egyptalande.

## XII. Capitule.

Guds Folks Þackargiord fyrer Evangelii Huggun og Endurnæring.

A þeim sama Tijma muntu segia. Eg þacka þier DROTTinn! ad þu varst reidur uppa mig, og þad þijn Reide hefur umvendt sier, og hugsvalad mier.

 2. Sioa,

2. Sioa, Gud er minn Hioalpare, eg em oruggur og ottast ecke. Þviad GUd DRottinn er minn Stirkur, og minn Lof-Psalmur, og er mitt Hioalpræde.

3. Þier munud med Fagnade Vatned upp ausa ur Hioalprædisins Brunnum.

4. Og munud segia a þeim sama Tijma, Þacked þier DROTTne, Prediked hans Nafn, giored kunna medal Folksins hans Gierninga, kunngiored hvorsu hans Nafn er so Hoatt.

5. Lofsynged DROTTne, þviad hann hefur audsynt sig dijrdlegann, þad sie kunnugt j ollum Londum.

6. Syng Lof, og vert glod þu sem Innebygger j Zion, þviad Jsrael hinn Heilage er mikell hioa þier.

# XIII. Capitule.

Spaadomur, ad þeir Medi mundu Eydeleggia Babylon.

Þesse er Byrdenn yfer Babylon, hvoria Esaias, Son Amos hefur sied.

2. Setied upp Merked uppa Hoa-Fiollonum, Kalled fast j mote henne, sloaed upp Hendenne, Loated jnndraga um Hlidenn Hofdingianna.

3. Eg hefe mijnum Heilogum boded, og mijna Ofluga kallad til minnar Reide, þeir ed gladværer eru j minne Vegsemd.

4. Þar er eitt Kall mikels Fiolda a Fiollunum, lijka sem være þar grua Folk. Eitt Hroop lijka sem einn Þys, af samansofnudum Kongarijkium Heidingianna.

5. DROTTJNN Zebaoth byr eirn Her ut til Bardaga, hvor ed ut af fiarlægum Londum mun koma j fra Enda Himensins. Ja DROTTJNN sioalfur medur Herlide sinnar Reide, til ad fordiarfa allt Landed.

6. Kveined! þviad Dagur DROttins er noalægur, hann kiemur lijka sem onnur Foreydsla af himum Almoattuga.

7. Þar fyrer tregast upp allra Hendur, og allra Manna Hiortu munu huglaus vera.

8. Skielfing, Angist og Harmkvæle mun yfer þa koma, þeir munu hugsiuker vera lijka sem hun ed fæda skal, hvor þeirra mun hræðast annann, þeirra Andlit munu raud verda sem Elldur.

9. Þviad sioa þu, Dagur DRottins kemur ogurlegur, reidugligur, og grimmlegur, til ad foreyda Landed, og ad afmoa hina Syndugu ut þadann.

10. Þviad Stiornurnar a Himnenum, og hans * Orion skijna ei skiært, Solenn geingur mirk upp, og Tungled hefur ecke sitt Lioos.

* Matth. 24, 29. Marc, 13, 25. Luc. 21, 25.

11. Eg vil Jardarkringlunnar vitia, vegna sinnar Jllgyrne, og þeirra Ogudlegu fyrer sinnar Odygdar Saker. Og eg vil eirn Enda giora Metnadarens hinna Rijkeloatu, og Dramblætid hinna Volldugu nidur lægia.

12. So ad eirn Karlmadur skal dyrkeyptare vera helldur enn kostulegt Gull, og eirn Madur meira (a) verdur enn eitt Stycke Gulls af Ophir.

(a) (Verdur) Þad er, so mikel Fæda mun verda a Monnum j Londenn so sem a Gulle.

13. Þar fyrer vil eg hræra Himenenn, so þad Jordenn skal ur sijnum Stad hrærast, af þeirre Grimdar Bræde DRottins Zebaoth, og fyrer þeim Deigenum hans Reide.

14. Og (b) hun skal verda sem ein jogud Skoogar-Geit, og sem ein Hiord oan Hyrders, so þad hvor eirn snue aptur til sijns Folks, og hvor eirn mun flya j sitt Land.

(b) (Hun) Þad er Babylon.

15. Af þvi, ad hvor sem þar finnst mun jhel sleigenn verda, og hvor hann er þar j hioa, sa mun fyrer Sverde falla.

16. Þeirra Born skulu eirnenn þeim oasioande sundur marenn verda, þeirra Heimele rænt, og þeirra Kvinnur skammadar.

17. Þviad sioa þu! Eg vil þa Medos upp vekia yfer þa, hvorier ad Silfre ecke leita, nie epter neinu Gulle spyria.

18. Helldur þeirra Þagesmenn med Bogum jhel skiota, og yfer Lijfs Averxte Miskunarlauser eru, og ei Ungbornum vægia.

19. Þannenn skal Babylon, hin fegursta medal Kongarijkianna, hin dijrdlega Þractenn j Chaldea, umturnud verda af GUde, lijka so sem Sodoma og Gomorra.

20. So ad þar skal ei leingur bued vera, nie nockur þar blijfa ad eylijfu, so þad eirnenn þeir j Arabia slœe þar øngvum Tiølldum upp, og øngver Hiardar-geymslu Menn hafe þar nein Fiœrhus.

21. Helldur munu Zihim hreidra sig þar, og þeirra Hus af (c) Ohim full vera, og Struts-fuglar munu þar byggia, og Draugar munu þar dansa.

(c) Ohim meina eg ad sie allshœttud Dyr og Kvikende, þau sem eru fer-fætt, so sem Zihim allrahanda Villudyr.

22. Og Uglur munu syngia j þeirra Hølum, og Eytur-Drekar j þeirra lystelegum Slotum.

23. Þeirra Tijme mun ad mestu komenn, og þeirra Dagar skulu ecke undann dragast.

24. Þviad DROTTinn mun miskuna sig yfer Jacob, og Jsrael enn nu frammveigis utvelia, og þa jnnsetia i þeirra Land, og hiner framande munu nœlægia sig til þeirra, og samteingia sig þvi Huse Jacobs.

25. Og Folked mun taka vid þeim, og fœro þa til sinna Stada, so þad Hus Jsraels mun eignast þa j Lande DROTTins, sier til Þræla og Ambœtta. Og munu þa Herteknahallda, af hvørium ad þeir Hertekner voru, og drottna yfer þeim sem þa þiœdu.

# XIV. Capitule.

Guds Folk gledur sig yfer Eydelegging þeirra Assyrisku.

Og a þeim Tijma, nær ed DROTTJnn giefur þier Hvijld af þinne Eymd og Armædu, og af þeirre hardre Þionustu sem þu varst j,

2. Þa muntu soddann Ordskvid hafa j mote Kongenum til Babylon, og segia, Hvørnenn er þad so med øllu utgiort um þann Fordrijfarann, og þad Skattgiallded hefur Enda?

3. DROTTinn hefur þann Vøndenn þess Ogudlega j sundur broted, þann Vøndenn Yfer-Drottnarans.

4. Sem j Reide sloo O-aflœtanlega Folked, og med Grimmd drottnade yfer Heidingiunum, og offokte Miskunarlaust.

5. Nu hvijlest þo øll Verølldenn, og er um kirrt, og fagnar gledelega.

6. Grene-Trien gledia sig eirnenn yfer þier, og þeir Cedrus-Viderner a Libanon (og segia) þad first þu liggur, þa kiemur eingenn upp hingad, sa ed oss høggve nidur.

7. Þad Helvijted þar under nidre skielfest fyrer þier, þa þu kiemur þvi j moote, þad uppvekur þier þa hinu Daudu, alla (a) Kiarnhafra Veralldarennar, og skipar øllum Kongum Heidenna Þioda ad standa upp af sijnum Stoolum.

(a) (Kiarnhafra) Þad er, Þa Megtugu Storherrana.

8. So ad þeir aller, hvør epter annann munu tala og segia til þijn, Þu ert og eirnenn nidursleigenn, lijka sem vær, og þad geingur þier lijka sem oss.

9. Þinn Metnadur er nidur farenn til Helvijtis, og Saunghlioded þinnar (b) Hørpu, Molurenn mun vera þijn Underdyna, og Madkarner þijn Abreida.

(b) (Hørpu) Þad er, Bæde hefur Enda Magtenn og Gledenn.

10. Hvørnenn ertu af Himne ofann dottenn? þu hin fagra Morgunstiarna! Hvørnenn ertu til Jardar fallenn? þu sem veikter Heidingiana!

11. Þu þeinkter þo j þijnu Hiarta, Eg vil uppstijga j Himenenn, og forhefia mitt Tignar-Sæte yfer Stiørnur Guds, Eg vil setia mig uppa Fialled Samkundunnar, vidur þa Hlidena mote Nordrenu.

12. Eg vil fara yfer þau hœfu Skijenn, og lijkur verda þeim Allra-Hæsta.

13. Jœ, til Helvijtis fer þu, til Grafarennar Sijdu.

14. Hvor þig sier sa mun skoda þig og lijta til þijn, og segia, Hvort er þad sa Madurenn sem skook Jordena, og skielfde Kongarijkenn?

15. Hvor ed Verolldena foreydde, og Borgernar þar jnne nidurbraut, og gaf ecke sijna Fanga lausa?

16. Ad Sonnu, aller Kongar Heidenna Pioda til samans liggia, þo med Heidre, hvor j sijnu Huse.

17. Enn þu ert rekenn af þinne Grof, so sem fyrerlitenn Kvistur, lijka sem eirn Ræfell þeirra drepnu, sem med Sverde j hel slegner eru, þeir ed ofann fara j þær (c) Griotkaser Helvijtis, so sem annad foottroded Lijk.

(c) (Griotkaser) Þad er j Grytta Jørd, edur þar sem Hræe er jnnkastad.

18. Eige muntu, lijka sem þeir, grafenn verda, þviad þu hefur þitt Land fordiarfad, og þitt Folk nidur droped. Þviad alldreige mun þess Sædesins hinna Illskufullu framar minnst verda.

19. Bued til þad hans Born verde sloatrud, fyrer Misgiorda saker Fedra þeirra, so ad þau komest ecke a Legg, hvorke til ad erfa Landed, nie ad uppfylla Jardrijke med Stade.

20. Og Eg vil koma yfer þa, seger DROttinn Zebaoth, og uppræta þeirra Minning af Babylon, þeirra epterlaatna Ætt, hans Son og Sonar Son, seger DROTTinn.

21. Og Eg vil giora hana til Eiguar Pindsvijnum, og ad Stodu-Votnum, og Eg vil utsoopa henne med Sooplimum Foreydslunnar, seger DROTTinn Zebaoth.

22. DROTTinn Zebaoth hefur so svared og sagt, Hvad gillder, ad þad skal so skie sem Eg þeinke, og skal so blijfa sem Eg hefe j Sinne.

23. Þad Assur verde nidursleigenn j mijnu Lande, og þad Eg nidur trode hann a mijnum Fiollum, so þad hans Ok verde af þeim teked, og þad hans Byrde komest af þeirra Hoalse.

24. Þetta hid sama er aasormed þad hann hefur yfer ollum Londum, og þad er su hin utrietta Hondenn yfer alla Heidingia.

25. Þviad DROTTinn Zebaoth hefur þad so urskurdad, Hvor vill þvi hamla? Og hans Hond er utriett, Hvor vill Henne j burt snua?

## XV. Capitule.

Þreynging Philisteanna, a Dogum Achas Kongungs i Juda.

A þvi Are þa Kong Achas andadest var þesse su (a) Byrde.

(a) (Byrde) Þad er Spaadoomur.

2. Gled þig ecke þu giorvallt Philistei Land! þad sa Vondurenn sem þig sloo sie j sundur brotenn, þviad ut af Root Hoggormsins mun koma einn Basiliscus, og hans Sæde mun eirn gloande Flugdreke vera.

3. Þviad hiner Frumgietnu þeirra Voludu munu fæda sig, og hiner Fatæku Ottalauser hvijlast. Enn þijna Root vil eg med Hungre deyda, og þijna Epterlaatnu skal hann j hel sloa.

4. Ylfra þu Port! Kveina þu Borg! Allt Philisteis Land er Huglaust. Þviad ut Nordrenu kiemur (b) Reykur. Og þar er eingenn einsamann j hans Landtiallde.

(b) (Reykur) Þad er, Eirn stoor Her, og ferdast ecke einslega, helldur j stoor-hoopum saman.

5. Og hvad munu Sendebodarner Heidenna Pioda hier og þar segia? Þetta, þad ad Zion hafe DROTTinn grundvallad, og hiner Fatæku hans Folks munu þangad sier Skiols leita.

## XVI. Capitule.

Moabitar verda Þegn-skyllder Konungenum i Juda vegna sinnar Drambseme.

Þetta er Byrdenn yfer Moab. A Noattar-Þele kiemur Foreydsla yfer Ar j Moab, hun er j burtu. A Noattar-Tijma kiemur Foreyding yfer Kir j Moab, hun er j burtu.

2. Þeir ganga upp til Baith og Dibon, til

til Alltaranna, so ad þeir groate og Yle yfer Nebo og Medba j Moab. Allra Høfud er hvarlaust, allra Skiegg er j burt rakad.

3. A sijnum Gatnamotum ganga þeir meður Hærusekkium vafder, uppa sijnum Ræfrum og Strætum Yla þeir aller, og ganga grátande þar ofann af.

4. Hesbon og Eliale æpa, so ad þad heyrest til Jahza. Þar fyrer kveina hiner Herklæddu j Moab, þviad þeirra Saalum geingur illa.

5. Mitt Hiarta kallar til Moab, Þeirra Flottamenn fludu fra þeirre þrevetru (a) Kunne, allt til Zoar, þvi þeir ganga ofan til Luhith, og groata, og a Veigenum til Horonaim, þar upphefst eitt aumlegt Hroop.

(a) (Kunne) Moab kallar hann þrevetra Ku, þvi þad Folk var rijkt af Land-eign, so sem ein Ung Kyr er Avoxtarsøm, og miolkar miked.

6. Þviad þau Votnenn til Nimrim þverra, so þad Heyed ofþornar, og Grased visnar, og øngvar grænar Jurter vaxa þar.

7. Þviad þau Audæfenn sem þeir hafa til samans dreiged, og þad Foolked sem þeir hafa utbued, flytst j burt yfer um þann Vijder-Lækenn.

8. Eitt Hriggdar-Kall geingur um kring j Landsaalfum Moab, þeir emia allt til Eglaim, og þeir emia j hioa Brunnenum Elim.

9. Þviad Votnenn til Dimon eru full af Bloode. Þar ad auk vil eg enn meira Blood koma laata yfer Dimon, senda (b Leon, bæde yfer þa sem undann hafa komest j Moab, og yfer þa sem epter eru ordner j Landenu.

(b) Leon kallar hann þa Volldugu, og vill sagt hafa, ad bæde Herrarner, og þeir undergiefnu, sem epter verde, skulldu mæta enn meire Ogiæfu.

10. Kiære! utsended þier Landsins Herrar Lombenn af (c) Sela, ur Eydemørkenne, til Fiallsins Dotturennar Zion.

(c) Þad er, Sended Offur til Jerusalem, ef þad villde noekud stoda.

11. Enn lijka sem eirn Fugl flygur j burt, sa ed af sijnu Hreidre verdur j burt drifenn, lijka so munu verda þær Dæturnar Moab, nær ed þær ganga framm hioa Arnon.

12. Safned Raadum, hallded Þing-Stefnur, giør þier Skugga um Middeige, lijka sem Nott. Fel þu þa Flootta-Mennena, og legg ei til þeirra sem flued hafa.

13. Leyf þu mijnum Flotta-Mønnum j hioa þier ad herbergia, Kiære Moab! vert þeirra Verndarskiol fyrer Foreydaranum, þa mun sa Kvalarenn eirn Enda hafa, og sa Fordiarfarenn linna, og sa Nidurþrickiarenn afloata j Landenu.

14. Enn þar mun eirn Stooll tilreiddur verda af Miskunsemenne, so ad eirn þar uppa sitie j Sannleikanum, j Tialldbud Davids, og dæme, og tractere epter Riettenum, og framfilge Riettlætenu.

15. Enn vier hofum heyrt ut af Drambsemenne Moab, þad hun sie miøg mikel, so þad hennar Drambseme, Stærelæte, og Reide, er meire enn hennar Magt.

16. Þar fyrer mun hvør Moabite æpa yfer ødrum, allersamann munu þeir æpa, Yfer Grundvellenum Borgarennar KirHareseth munu hiner lemstrudu andvarpa.

17. Þviad Hesbon er Eydeland ordenn, Vijn-Tried til Sibma er fordiarfad, Herrarner medal Heidenna Þioda hafa þess edla Vijn-Vidar Kvistu j sundur sleiged, og eru komner allt til Jaeser, og fara j kring j Eydemørkene, hennar edla Vijn-Vider eru j sundur dreifder, og yferum Hafed flutter.

18. Þar fyrer græt eg vegna Jaeser, og vegna þess Vijn-Triesins til Sibma, og uthelle mørgum Taarum vegna Hesbon og Eleale. Þviad þar er eitt (d) Saunghliod j Þijna Sumarvinnu og Haustyrkiu innfalled.

(d) Saunghliod) Ovinahroop j Stadenn þijns glebelegs Saungs.

19. So þad Gledenn og Fognudurenn er af Akurlondonum j burt horfenn, og j þeim Vijngordonum kveda þeir ei nie gledia sig. Þar utþrickest eckert Vijn j Vijnpressunum, a Saungnum hefe eg eirn Enda giort.

20. Þar fyrer hlioodar mitt Hiarta yfer Moab

Moab, lijka sem ein Harpa, og mijn Jdur yfer Kirhares.

21. Þa mun þad openskoart verda, hvornenn þad Moab er (e) þreyttur j hioa Ølltorunum, og hvornenn þad hann sie geingenn til sinnar Kyrkiu, ad bidiast fyrer, og hafe þo øngvo til Stadar komed.

(e) (Þreyttur) Ad hann hefur nærsta miøg mædt sig, og til einskis Gagns.

22. Þetta er þad hvad DROTTinn hefur talad j giegn Moab, j þad sama Sinn.

23. Enn nu mæler DROttinn, og seger, A þremur oarum, lijka sem þad eins Verkmanns oar eru, þa mun Vegsemdenn j Moab lijtelmotleg verda j þeim mikla Mannfiølda, so þad miøg foaer epter verde, og eige marger.

## XVII. Capitule.

Straff og Eydelegging þeirra Syrlendskn.

Þesse er su Byrdenn yfer Damascum. Sioa þu! ad * Damascus mun eingenn Stadur leingur vera, helldur ein nidur hrunenn Griothruga.

* Damascus kallast Ephraims Folks Kastale, af þvi þeir treystu upp oa Damascum.

2. Þeir Staderner Aroer munu forloatner verda, so ad þar mun Hiørdonum beitt verda, og þar mun eingenn vera sem hræder þær.

3. Og þad mun utgiort vera um Kastala Ephraims, og Kongs Rijked til Damascum, og þad sem epter er blifed i Syria mun vera lijka sem Vegsemdenn Jsraels Barna, seger DROTTinn Zebaoth.

4. A þeim Tijma mun Vegsemdenn Jacobs þunn verda, og hans feitur Lijkame mun magur verda.

5. Þviad þeir munu vera lijka sem þa nær ed nockur jnn safnar Korne j Haustvinnunne, og so sem þa nær ed einhvør junndregur Axenn med sijnum Armleggium, og lijka sem þa eirn saman les Axenn j Dalnum Rephaim.

6. Og verde þar epter ein Haust-Epter-yrkia, Lijka sem þad, nær ed Madur skiekur eitt Vidsmiørs-Trie, so þad upp j Toppenum epterblijfe Tvø edur Þriu Ber, edur so sem þa Fiogur eda Fimm Alldine hanga a Kvistenum, seger DROTTinn Jsraels Gud.

7. A þeim Tijma mun Madurenn hneygiast ad hønum sem hann hefur skapad, og hans Augu munu lijta uppa þann hinn Heilaga j Jsrael.

8. Og ei mun hann hallda sig til þeirra Alltaranna sem hans Hendur hafa giort, og ecke lijta uppa þad hvad hans Fingur høfa giort, hvørke uppa Lundana nie Lijkneskiurnar.

9. A þeim Tijma munu Staderner þeirra (a) Stirkleiks vera lijka sem epterloatnar Greiner og Kvister, sem ad epterloatner voru vegna Jsraels Barna, og munu j Eyde vera.

(a) (Stirkleiks) Þad eru þeir Staderner, i hvørium þeirra Skurgod og Embættisgiordenn var, hvar uppa þeir treystu, Enn so sem Jsraels Syner lietu foatt Folk, lijka svo sem Greiner edur Kvistu, epter blijfa, þa þeir unnu Canaans Land, so skal þad og eirnenn ganga þeim. les Esa. 38.

10. Þviad þu hefur forgleymt Gude þijns Hioalpprædis, og þu hefur ecke minnst a þad Hellubiarged þijns Stirkleika. Þar fyrer muntu lystelega Plantan nidur setia. Enn þar med muntu annarlegum þa Vijnkvistu lagt hafa.

11. A Plontunar Tijmanum muntu þeirra vel giæta, so ad þitt Sæde vaxe Tijmanlega. Enn j Haust-Vinnunne, nær ed þu skallt Kiarnann jnn-yrkia, muntu Sorg eins Harmþrungens þar fyrer hafa.

12. O vei þeim (b) Fiolda so mikels Folks! lijka sem Sioafar-Hafed mun þad uppþioota, og Bulldran Lydsins mun dynia, lijka sem Dynur mikellra Vatnsfalla.

(b) Þetta er sagt um þa Assyrios, hvørium hann seger fyrer sijna Fordiorfun, Jsraels Lyd til Huggunar.

13. Joa, lijka sem stoor Vatnsfoll dynia, so mun Folked framm þeysa. Enn hann mun straffa þa, so munu þeir langt j burt flya, og

mun

mun offækia þa, lijka sem þad Vindur feyker Molldar-Dupte a Fiollum uppe, og lijka sem Hvirfel-Vindur kiemur af Storm-Vidre.

14. Ad Kvolld-Tijma, Sioa þu! þa er þar Skielfing, og aadur enn Morgun kiemur eru þeir eigeingur. Þetta er Verdkaupeð vorra Raansmanna, og Erfd þeirra sem vort hafa burt tekeð.

## XVIII. Capitule.

Her utmaalast Harmkvæle Morlendskra, af Hernade og Hallære.

Vei þvi (a) Landenu sem ad fer under Væn-gia Skugganu þessumeigenn Vatnanna j Morlande!

(a) (Landenu) Þad Land liggur a millum Egypta-Lands og Rauda Hafs, hvort Menn kalla Troglodita, Arabiska, og Ismaelita, allgiment og olmt Raansfolk, hvort ed hroosar sier þar af, ad þeir lifde af Raan-skap og Hardfeinge.

2. Sem Bodskapenn utsender a Hafenu, og j Reyr-Skiponum a Votnunum fer. Fared hiedann þier skioter Sendebodar, til þeirrar Þiodar sem rænd og rutlud er, til þess Folksins sem ognarligra er enn nockurt annad, til þess Folksins sem hier og þar afskamtad og nidurtroded er, hvors Land Vatnsfloodenn underleggia.

3. Aller þier sem a Jardrijke bygged, og þeir sem j Landenu bua munu sioa Hvornenn þad Merkenn a Fiollunum munu utsliuga, og heyra þad Hvorneun Ludrarner munu bloasast.

4. Þviad so seger DROTTinn til mijn. Eg vil kirru fyrer hallda, og umskygnast j mijnu Sæte, lijka sem eirn Hite sem uppþurkar Regned, og so sem Dogg j Hita Haust-Vinnunnar.

5. Þviad fyrer Haustyrkiuna mun Avoxturenn uppvisna, og sa Alldins-Vijserenn j Bloomstur-Tijdenne uppþorna, so þad Steingurnar hliote Menn medur Sigdum j burt ad snijda, og Vijnkvistuna af ad hoggva, og j burt kasta.

6. So ad Menn hliota til samans ad liggia loata, Fuglana a Fiollunum, og Dyrenn j Landenu, so þad a Sumared hreidre Fuglarner sig þar jnne, og a Veturenn ligge þar jnne allskins Dyr j Landenu.

7. A þeim Tijma mun þad hid sundurdreifda og hid rænta Folked, þad sem ogurlegra er enn nockurt annad, þad hier og þar er ut af mællt og nidur troded, hvors Land Vatnsfloodenn underleggia, Gaafur færa DROttne Zebaoth, j þeim Stad þar ed Nafned DROTTins Zebaoth er, til Fiallsins Zion.

## XIX. Capitule.

Esaias talar (I) um Osamlyndе; (II) Hegoma-Athæfe, og (III) Velferd Egyptskra.

I. Þesse er Byrdenn yfer Egyptalande, Sioa þu! ad DROTTinn mun fara a einu skiootu Skije, og koma j Egyptaland. Þa munu Skurgodenn j Egyptalande skioalfa fyrer honum, og Hiarta Egyptskra Manna mun sliofgast j þeirra Buk.

2. Og eg mun egna hvorn Egyptskann moote odrum, so ad eirn Brodurenn moote odrum, Eirn Vinurenn moote odrum, Eirn Stadurenn moote odrum, Eitt Rijke skal moote odru beriast.

3. Og Hugar-Hreystenn þeirra Egyptsku skal ad ongvo verda j hioa þeim, og eg vil þeirra Raad ad Onytu giora. Þa munu þeir adspyria sijna Afgude og (a) Presta, og Sannsagnar-Menn, og Teikna-Utþydara.

(a) (Presta) Þad eru þeir andlegu Spaamenn og Kiennemenn.

4. Enn eg mun ofur-giefa hina Egyptsku j Hond grimmra Hofdingia, og (b) Hardraadur Kongur skal yfer þeim Drottna, seger sa Stiornarenn DROTTinn Zebaoth.

(b) Hardraadur, Kongurenn af Assyria.

5. Og þad Vatned j Sionum mun upp þorna, þar ad auk mun Vatnsfalled þverra og burthverfa.

6. Og Votnenn munu frammhlaupa, so ad þau Stoor-Votnenn hioa Dykiunum munu verda lijtel og þurr, bæde Reyrenn og Sefed mun uppvisna.

7. Og þad Grased framm vid Votnenn upp

upp þorna, og allt þad Sæde sem vid Vatnenn er mun upp visna, og ad ongvu verda.

8. Og þeir Fiskemenn munu syrgia, og aller þeir hiner somu sem kasta Önglunum j Vatned munu kveina, og þeir sem Fiske-Netenn utleggia j Votnenn munu hriggver vera.

9. Þeir ed gott Netgarn verka, og Netenn til samans rijda, munu faa Sneypu.

10. Og þeir ed Fiske-Haafana hafa, aasamt med ollum þeim sem Veide-Votneñ giora fyrer Verk-Launa saker, þa munu Sorgbitner vera.

II. 11. Þeir Hofdingiarner til Zoan eru faavijser, Hiner Hyggnu Raadgiafarner Pharaonis eru ordner Heimsker j Raadum. Hvad seged þier þo ut af Pharao? Eg em Sonur Spekinganna, og utkomenn af þeim gomlu Kongunum?

12. Hvar eru nu þa þijner Spekingar? Laattu þa kunngiora þier, og vijsa þad, hvad ed DROTTenn Zebaoth hefur aalycktad yfer Egyptaland.

13. Enn þeir Hofdingiarner til Zoan eru heimsker ordner, Þeir Hofdingiarner til Noph eru svikner, þeir svijkia og med Egyptalande þann Hyrningar-Steinenn Kinkvijslanna.

14. Þviad DROTTinn hefur uthellt medal þeirra einum Sunnlunar Anda, so ad þeir ville Egyptaland j ollum þeirra Giorningum, lijka sem þad eirn ofdruckenn Madur hann kollvelltur nær ed hann selur upp.

15. Og Egyptaland mun eckert hafa, hvorke Hofuded nie Halann, Kvist nie Eikina.

16. A þeim Tijma mun Egyptaland vera lijka sem Konur, og ottast og skielfast, þa ed DROTTinn Zebaoth mun Hendenne veyfa yfer þad.

17. Og Egyptaland mun hrædast fyrer Londenu Juda, so þad, hvor hann minnest a þad sama mun hrædast fyrer þvi, yfer Raadenu DROTTins Zebaoth sem hann hefur aalycktad yfer þeim.

III. 18 A þeim Tijma munu Fimm Staderner j Egyptalande tala epter Tungumaale Canaans, og sveria vidur DROTTinn Zebaoth, Eirn mun heita (c) Jr Heres.

(c) (Jr Heres) Þad er, Solarennar Borg, og þvi meina marger ad þad sie Heliopolis.

19. A þeim sama Tijma mun Alltare DROTTins vera midt j Egyptalande, og eirn Yferskriftar Steirn DROTTins vidur Landamerkenn,

20. Hvor ed vera mun eitt Teikn og Vitnisburdur þeim DROTTne Zebaoth j Egyptalande. Þviad þeir munu kalla til DROttins yfer þeim sem þa þvinga. Hann mun þa og senda þeim eirn Hiaalparmann og Meistara, hvor ed þa frelsar.

21. Þviad DROTTinn mun þeim Egyptskum kunnugur verda, og þeir hinu Egyptsku munu þeckia DROTTinn a þeim Tijma, og munu honum medur Foornum og Matoffre þiona, og þeir munu Heitum losa DROTTne, og hallda þad.

22. Og DROTTinn mun plaaga hina Egyptsku og græda þa, þviad þeir munu snuast til DROTTins, og hann mun laata þa bidia sig, og lækna þa.

23. A þeim Tijmum mun Vegur vera af Egyptalande j Assyriam, so þad þeir ur Assyria j Egyptaland, og hiner Egyptsku j Assyriam kome, og þeir hvorutveggiu, hiner Egyptsku og ur Assyria, munu Gude þiona.

24. A þeim Tijmum mun Jsrael med þeim Egyptskum og Assyriis sialfur Þridie vera, fyrer þa Blessan sem a Jordunne mun verda.

25. Þviad DROTTinn Zebaoth mun blessa þa, og segia. Blessad siertu Egyptaland mitt Folk, og þu Assur, Verked minna Handa, og þu Jsrael, mijn Arfleifd!

## XX. Capitule.

Forleyse Esaiæ þyder Herleiding þeirra Egyptsku og Morlendsku medal Assyrista.

NAr þvi Aarenu þa ed Tharthan kom til Asdod, so sem þad Sargon, Kongurenn j Assyria

Aſſyria hafde hann utſendt, og hann bardeſt j mote Asdod, og yfervann hana.

2. A þeim ſama Tijma talade DROTTinn fyrer Eſaiam, Son Amos, og ſagde. Far þu, og leys þann (a) Seckenn af þijnum Lendum, og drag þijn Skookloede burt af þijnum Footum! Og hann giorde ſo, gieck nakenn og berfættur.

(a) Þann ſtor-ofna Kyrtel, edur hvørs-daglegann Klædnad.

3. Þa ſagde DROTTinn. Lijka ſo ſem þad minn Þion Eſaias geingur Nakenn og Berfættur, til Merkis og Stor-Undra Þrig-gia Aara, yfer Egyptum og Morland,

4. Eins mun Kongurenn j Aſſyria burt reka Egyptſka fangada, og burt reka bæde Unga og Gamla, Nakta og Berfætta af Morlande, medur alsberre Blygdan, Egyptſkum til Skammar.

5. Og þeir munu ſkielfaſt, og ſkammaſt ſijn, vegna Morlands, uppa hvort þeir vonudu, Og þar j mot Morland vegna þeirra Egyptſku, ut af hvorium þeir hroosudu ſier.

6. Og þeir Innbyggiarar þeſſarar Eyar munu ſegia a þeim ſama Tijma. Er þad vort Trauſt, þangad ed vier flydum til Hiaalpar, ſo ad vier freiſader yrdum fyrer Kongenum j Aſſyria? Hvorſu ſijnlegana erum vier undann komner!

## XXI. Capitule.

Eſaias talar (I) um þa Babyloniſku; (II) Idumæiſku, og (III) Arabiſku, ad þeir munde verda æſokter af þeirra Ovinum.

I. Þeſſe er ſu Byrde yfer Eydemorkena vidur Siaafar-Hafed. Lijka ſo ſem eitt Stormvidre kiemur af Sudre, þad er umſnyr øllum Hlutum, ſo kemur þad og lijka ut af Eydemorkenne, j burt ur einu ogurlegu Lande.

2. Þviad mier er vijſud ein þung Syn, Einn Forſmaanarenn kiemur j mote ødrum, Einn Fordiarfarenn j mote ødrum. Far upp hingad þu Elam! umkrijngdu hana Madai! Eg vil eirn Enda giora a allre þeirra (a) Andvarpan.

(a) (Andvarpan) Hvørre þann kom af Stad þar med, ad hann plaagade marga Lyde, og ſierdeilis Guds Folk.

3. Þar fyrer eru mijnar Lendar fullar af Hriggd, og Angiſt hefur høndlad mig, ſo ſem eina þa ed fæder. Eg beyge mig þa eg heyre þad, og ſkielfeſt þa eg ſie þad.

4. Mitt Hiarta þad ſkielfeſt vid, Ognanenn hefur hrædt mig, a Nottunne hef eg þar ongva Roo fyrer.

5. Ia, Bu þu eitt Mat-Bord til, Laattu vaka a Vardhallds-Hoolnum. Eted, Drecked, Taked ydur upp hier Hofdingiar! bered feitt a Skiolldûna.

6. Þviad DROTTinn ſeger ſo til mijn, Far þu, og ſet eirn Viſſionar-Mann, ſa er adgiæte og tilſege.

7. Enn hann ſier Reidmenn rijda, og renna a Heſtum, Øſuum og Ulfolldum, og giefur Giætur þar ad med miklu Athygle.

8. Og eitt Leon kallade, DROTTinn! eg ſtend a Dagenn med Iafnade uppa Vokuhædenne, og ſet mig uppa mitt Vardhalld um allar Nætur.

9. Og ſiaa þu! ad þar kiemur eirn ſem ferdaſt a einum Vagne, hann giefur Svar og ſeger, Babylon er fallenn, * hun er fallenn, og allar Lijkneſkiur hennar Skurgoda eru nidur ſlegnar til Iardar! * Opb: B: 14, 8. c. 18, 2.

10. Minn kiære (b) Kornlaafe! þar ed eg þreſke uppa. Hvad eg hefe heyrt af DRottne Zebaoth, þeim Gude Iſraels, þad ſama kunngiore eg ydur.

(b) Babylon kallaſt Guds Kornlaafe, þviad hann vill þreſkia, ſundurſlaa og melia hana.

II. 11. Þeſſe er ſu Byrdenn yfer Duma. Til mijn var kallad ut af Seir, Vokumadur! Er (c) Noottenn ſnart ute? Vokumadur! Er Noottenn ſnart ute? Enn Vokumadurenn ſagde.

(c) (Noottenn) Þad er, Mirkur, Hrelling, og Harmkvæles-Tijd, fyrer Olucku ſaker.

12. Þa Morgunenn kiemur þa mun þad þo

 ſamt

samt Nott vera, þo ad þier spyried ad þvi, þa munud þier þo aptur koma, og aptur spyria.

III. 13. Þesse er su Byrdenn yfer Arabia. Þier munud bua j Skogenum j Arabia, a Veigenum til Dedanim.

14. Færed Vatn ut a mote hinum þyrsta, þier sem bygged j Landenu Thema. Bioded framm Brauded þeim ed flya.

15. Þviad þeir flya fyrer Sverdenu, Jꜳ, fyrer noktu Sverde, fyrer þeim uppspennta Boga, fyrer þvi mikla Strijde.

16. Þviad so seger DROTTinn til mijn, þad enn a einu ꜳre, lijka so sem ad eru ꜳrenn Daglaunarans, þa skal oll Vegsemd Kedar under ganga.

17. Og þær Skytturnar sem epter eru ordnar af Koppunum j Kedar skulu færre verda. Þviad DROTTinn Jsraels Gud hefur þad talad.

## XXII. Capitule.

Her er spꜳd, ad Jerusalems Borgar Jnbyggendur ættu ad verda Herleidder af þeim Assyriska Konunge.

Þesse er Byrdenn yfer (a) Sionar Dalnum. Hvad er ydur, ad þier hlauped so aller uppa Ræfrenn?

(a) Jerusalem kallar hann Sionardal, af þvi hun hafde marga Sionar Menn, þad er, Spꜳmenn og Kiennefedur i Guds Orde.

2. Þu varst full med Glaum, ein Borg full af Folke, ein gledeleg Borg. Þijner Helslegnu eru ecke med Sverde vegner, og ecke j Bardaga dauder.

3. Helldur eru aller þijner Hofudsmenn fyrer Boganum j burt flyder, og Hertekner. Aller þeir sem fundest hafa j þier þeir eru faugader, og langt j burt flyder.

4. Þar fyrer sege eg, Hafed ydur j fra mier, Lꜳted mig grꜳta beisklega, Omaked ydur ecke ad hugsvala mier yfer þeirre Foreydslunne Dotturennar mijns Folks.

5. Þviad þad er eirn Dagur Stiriall-dar, og Fottrodningar, og Eydeleggingar af DROTTne DROTTne Zebaoth, j Sionardalnum, vegna þess Undergraftar Muranna, og þess Heroopsins a Fiallenu.

6. Þviad (b) Elam kiemur þar med Pijlnakoffrenn, Vagna, Foolked, og rijdanda Lid, og Kir lætur skijna a Skylldena.

b) (Elam) eru þeir Persar og Chaldei.

7. Og þad mun skie, ad þijner Utvoldu Daler munu fuller ve[...]a med Vagna, og rijdande Lid mun si[...]ar Herbuder setia fyrer Port-Dyronum.

8. Þa mun (c) Fortialldenu Juda upplypt verda, so þad mun siꜳst a þeim Tijma þau Vopnenn Skoogar-Hussens.

(c) (Fortialld) Þad er, Oll þau Hus, þar Fiesioder, og Vopn og Verium inne eru, munu fyrer Ovinenum openn standa.

9. Og Spiollenn Borgarennar Davids munu þa morg siꜳst, og þier munud Vatnenu ur þvi nedsta Vatnsdijkenu safna.

10. Þier munud og eirnenn telia Husenn til Jerusalem, Ja, þier munud nidurbriota Husenn, til ad stirkia Murveggena med.

11. Og þier munud giora Grof millum beggia Muranna, ut af Vatne þess gamla Fiske-Dijkesins. Þo giæted þier ecke ad honum sem soddann giorer, og siꜳed ecke uppa hann sem slijkt tilsender ꜳleingdar.

12. Þar fyrer mun DRottinn DRottinn Zebaoth a þeim Tijma kalla lꜳta, ad þeir skule grꜳta og kveina, og Hꜳred af raka, og Hriggdar-Bunade klædast.

13. Enn siꜳ, þar er ecke utann Glede og Glaumur, Naut drepenn, Saudum slꜳtrad, Kieted eted, Vijn drucked (og sagt) *(d) Lꜳtum oss eta og drecka; vier deyum þo a Morgun. *1 Cor. 15, 32.

(d) (Lꜳtum) So spotta þeir Spꜳmennena, hvorier ed þeim segia þeirra Dauda fyrer.

14. Soddan er fyrer Eyrum DROttins Zebaoth openbert, Hvad gillder, ef þesse Misgiord verdur ydur Fyrergiefenn, ꜳdur enn

enn þier deyed; seger DRottinn DRottinn Zebaoth.

15. So seger DROttinn DROttinn Zebaoth, Far þu og gack inn til Rentu-Meistarans Sebna, Hofgardds-Meistarans, og seig þu til hans.

16. Hvad hefur þu hier? Hverium heyrer þu til? Ad þu lætur uthoggva þier hier eina Grøf, so sem sa ed sijna Grøf a Hædum uppe uthoggva lætur, og sijna Jbygging lætur j Steinhellum giøra.

17. Sioa þu, ad DROTTinn mun j burt (e) fleygia þier, lijka sem þad eirn Øflugur Madur j burt fleyger ødrum, og kraffsa upp yfer þig.

(e) (Burt fleygia) So hann skal ecke arestrast j sijnu Huse, edur sinne Grøf, helldur annarstadar.

18. Og hann mun vellta þier sem ødrum Hnette, langt burt j framande Lond, þar muntu deya, þar munu þijner dyrleger Vagnar blijfa, med Forsmoan Hussens þijns Herra,

19. Og eg vil utskufa þier ur þinne Stiett, og eg vil afsetia þig af þijnu Embætte.

20. Og a þeim Tijma vil eg kalla minn Þion Eliakim, Son Hilkia.

21. Og vil jklæda hann þijnum Kyrtle, og gyrda hann med þijnu Bellte, og giefa þitt Valld j hans Hendur, so ad hann sie Fader þeirra sem byggia til Jerusalem, og Hussens Juda.

22. Og eg vil (f) * Lykelenn til Hussens Davids leggia uppa hans Herdar, so þad hann luke upp, og eingenn aptur læse, þad hann aptur læse, og eingenn uppluke.

* Opinber: B: 3, 7.

(f) (Lykelenn) Ad hann sie Rentu-Meistare j Stadinn hins.

23. Og eg vil keyra hann einn fastann Nagla j sterkum Stad, og hann skal hafa þad Dijrdar-Sæted j sijns Fodurs Huse.

24. So þad heingest uppa hann øll Vegsemd Hussens hans Fodurs, Barna og Barna-Barna, øll þau smaa Ker, bæde Dryckiar-Staup, og allshøattud Hliodfære.

25. A þeim Tijma, seger DROTTinn Zebaoth, skal sa Naglenn j burt tekenn verda sem fastur stend ur j øruggvum Stad, so þad hann j sundur brotne og nidurfalle, og ad hans Þunge glatest, þviad DROTTinn hann seger þad.

## XXIII. Capitule.

Her er spaad um Eydelegging Tyri Borgar, sem Grikker attu ad giøra, Naalægum Borgum til Ognunar.

Þesse er su Byrdenn yfer Tyro. Yled þier Skipenn a Sionum! þviad Hun er foreydd, so ad þar er eckert Hus uppe, nie sa nockur sem þangad fare, ut af Lande (a) Chitim munu þeir þess varer verda.

(a) (Chitim) Þad hefur giørt Alexander hinn Mikle af Macedonia, so laungum Tijma adur hefur Esaias þad fyrer sied.

2. Þeir Innbyggiarar Eyanna eru nu kirrer vordner, þeir Kaup-Menn j Zidon, sem yfer Hafed fooru, þeir uppfylltu þig.

3. Og hvad fyrer Alldine er ox vid Sizor, og þad Korned sem vid Vatned vogs þad flutt est inn til hennar, yfer um mikel Votn, og þu varst vordenn Kauphondlun Heidenna Þioda.

4. Þu moatt vel skielfast Zidon! þviad (b) Sioafar-Hafed, Joa, Su hin allra-sterkasta vid Hafed hun seger, Eg em ei leingur þungud, eg fæde ecke leingur, so el eg eingenn Ungmenne upp, og fæde ei neinar Meyar upp.

(b) (Sioafar-Hafed) Þad er Tyrus.

5. Lijka sem Menn hræddust, þa þeir heyrdu um Egyptaland, so munu þeir og hrædast, þegar þeir heyra af Tyro.

6. Fared ut a Hafed, Yled þier Innbyggiendur Eyanna!

7. Hvort er þad ydar Fagnadar-Borg sem sier hroosar sijns Alldurs vegna? Hennar Fætur munu langt j burt flytia hana til ad ferdast.

8. Hvor hefde þad meint, ad þad skyllde Tyro hinne (c) Koronudu so ganga? Hvørrar

rar Kaup-Menn ad þo voru Hoͤfdingiar, og hennar Varnings-Menn hiner Tijgulegustu j Landenu?

(c) (Koronudu) Þeirre einvølldu Koronu framm yfer adrar.

9. DROTTinn Zebaoth hefur þad so fyrer hugsad, uppa þad, ad hann veikte allt Dramb þeirrar lystelegu Borgar, og fyrerlijtanlega giøre alla Tignar-Menn j Landenu.

10. Renn þu j giegnum þitt Land, lijka sem Aarstraumur, þu Dotter Sioafar-Hafsins, þar er eckert (d) Vellte leingur.

(d) (Vellte) Þad er, Eingenn Valldsstiett, nie Yfervalld.

11. Hann utrietter sijna Hønd yfer Sioenn, og skielfer Konga-Rijkenu, Drottinn hann bydur yfer Canaan, til ad afmoa þeirra hina Volldugu.

12. Og seger, Þu skallt ecke leingur glod vera þu hin skammada Jungfru, þu Dotter Zidons! O (e) Chitim! vert til Reidu, og far aframm, þviad þu moatt þar ei blijfa.

(e) (Chitim) Þad er, Þa Alexander hafde nidurbroted Tyrum, hlaut hann ad foreyda Babylon, þetta kom framm epter 400. Aar.

13. Helldur j Chaldea Lande, sem eckert Folk var, helldur hefur Assur þar Skipaferder byriad, og fastann Turn þar jnne uppbyggt, og hefur þar Høll upp smijdad, enn hun er sett til þess, ad hun ad Velle nidur brioetest.

14. Yled þier Skip a Sionum, þviad ydar Magt er nidur brotenn.

15. A þeim Tijma mun Tyrus forgleymd verda um Siotijge Ar, so leinge sem eirn Kongur getur lifad. Enn epter Siotijge Ar lidenn mun kveded vera eitt Hooru-Kvæde um Tyro.

16. Tak þu Horpuna og gack j kring j Borgenne þu forgleymda Hoora! haf þu gott Lag a Hliodstreingium, og syng frijdt, so ad þijn verde minnst aptur.

17. Þviad epter Siotijge Ar lidenn mun DROTTinn vitia Tyro, so ad hun kome aptur til sinna Portlijfes Verdlauna, og drye Hooraner vid øll Konga-Rijkenn a Jordu.

18. Enn hennar Kaupskapur og (f) Portlijfes Laun munu DROTTne helgud vera, þad mun ei samann dreged vera j Fiesiodu, og ecke nidur byrgt, helldur munu þeir sem fyrer DROTTne byggia hennar Kaup-Eyrer hafa, so ad þeir neyte og verde sadder, og sieu vel klæddir.

(f) (Portlijfeslaun) Þad er hennar Abate og Høndlun sem hun hefur af Afgudadijrdkan.

## XXIV. Capitule.

Foreydsla Gydingalyds er utmaalud, so sem þad er framm ætte ad koma, vegna Þverudarsamrar Yfertrodslu Guds Bodorda.

Sioa þu! DROTTinn giører Landed toomt og j Eyde, og køllkastar þvi sem þar jnne er, og j sundur dreifer þess Innbyggiurum.

2. Og þad geingur so Prestunum sem Folkenu, so Husbondanum sem Pienaranum, so Husfreyunne sem Pionustukonunne, so þeim ed selur sem hinum ed kauper, so þeim ed loanar sem hinum ed Loaned tekur, so þeim ed krefur sem hinum ed skylldugur er.

3. Þviad Landed mun toomt og rænt vera, Þvi DROTTinn hefur soddan talad.

4. Landed stendur hørmulega og spillest, Jardarkringlann þverrar og fordiarfast, þeir Ædstu Folksins j Landenu fara til Mijnkunar.

5. Landed er saurgad af sijnum Innbyggiurum, þviad þeir ganga a Løgmaaled, og umskipta Bodordunum, og laata fara þann Eylijfa Soattmaala.

6. Fyrer þad sama þa uppsvelger Bølvanenn Landed, þviad þeir verdskullda þad sem þar jnne byggia, Þar fyrer uppþorna þeir Innbyggendur Landsins, so ad fooer Menn blijfa þar epter.

7. Hid nya Vijned þad j burt hverfur, Vijn-Vidurenn hiadnar nidur, og aller sem af Hiarta glader voru þeir andvarpa.

8. Gledenn Bumbuslaattarins legst af, Fognudurenn hinna Gladværu er utgiørdur, og

og Glaumur Horpuslaattarins hefur eirn Enda.

9. Vid Vijndryckiurnar kveda Menn ecke, og goodur Dryckur er þeim beiskur ed hann dreckur.

10. Su tooma Borgenn er nidur brotenn, oll Husenn eru apturbyrgd, so þad eingenn geingur þar jnn.

11. Kallad er epter Vijnenu a Strætunum, oll Glede er j burt, allur Fognudur Landsins er horfenn.

12. Ecke utann Foreydslann er epter j Borgenne blifenn, og Borgar-Hlidenn standa j Eyde.

13. Þviad þad geingur Landenu og Folkenu lijka so sem þa nær eitt Vidsmiors Trie er utplockad, lijka so sem þa ed lesed verdur epter, nær ed Vijnyrkiann er ute.

14. Þeir hiner somu hefia upp sijna Raust, hroopa og glediast, fra Sioafar-Hafenu, yfer þeirre Dijrdar-Vegsemmdinne DROTTins.

15. Þar fyrer þa vegsamed nu DRottinn a Laag-Londonum, j þeim Ut-Eyum Sioafarins, Nafned DROTTins Guds Jsraels.

16. (a) Vier heyrum Loffsaung j fra Endemorkum Jardarennar, til Dijrdar hinum Riettferduga. Og eg hlyt ad segia, Hvornenn er eg þa so Magur? Hvornenn em eg þa so Magur? Vei mier! þviad þeir Forsmaanarar forsmaa þad, Jaa þeir Forsmaanarar forsmaa þad.

(a) (Vier heyrum) Þeir Heidnu prijsa GUd j Stoorhoopum, enn af voru Folke er miog fatt þad slijkt vilie giora.

17. Þar fyrer kiemur yfer ydur þier Jnnbyggiarar Landsins! Skielfing, Grof og Snara.

18. Og þo ad nockur flyde fyrer Kallenu Skielfingarennar, þa mun hann þo falla j Grofena, Komest hann ur Grofenne, þa mun hann þo fangadur verda j Snorunne. Þviad þau Vindaugunn j Hædunum eru upplaatenn, og Grundveller Jardarennar þeir skialfa.

19. Þad mun þvi Landenu jlla ad fara, og ecke luckast vel, og þad mun nidur hrynia.

20. Þad Landed mun um Koll detta lijka sem druckenn Madur, og j burt flutt lijka sem annad Tialldhreise, þviad þess Misgiorder nidur þryckia þvi, so þad hlytur ad falla, og kann ecke ad standa.

21. A þeim Tijma mun DROTTinn vitia þess haafa Riddaraskaparins sem a Hædunum er, og þeirra Jardrijkes Konganna sem eru a Jordu.

22. Þad þeir samansafnader verde j eitt Byndene til Gryfiunnar, og Jnnelukter j Fangelsenu, og epter langann Tijma lidenn, þa verdur þeirra vitiad aptur.

23. Og Tungled mun fyrerlijta sig, og Solenn mun standa med Mijnkun, nær ed DRottinn Zebaoth mun Kongur vera uppa Fiallenu Zion, og til Jerusalem, og j Augsyn sinna Olldunga j Dijrdar-Vegsemdinne.

## XXV. Capitule.

Umvendun Heidingianna i Nya Testamentenu.

DROttinn! Þu ert Minn Gud! Þig vegsama eg, Þitt Nafn lofa eg, Þviad Þu giorer Stoormerke, Þitt daform j fra fornum Tijdum er Trutt og Sannarlegt.

2. Þviad þu giorer Borgena ad Griootahrugu, þa sterku Borgena, ad hun liggur nidur fallenn j eirnre Hrugu, Hallernar þeirra annarlegu, so ad þad sie ecke leingur ein Borg, og hun verde alldrei meir uppbyggd.

3. Þar fyrer heidrar þig eitt megtugt Folk, Borgernar Volldugra Heidingia þær ottast þig.

4. Þviad þu ert Styrkleikur Lijtelmagnans, Styrkleikur hins Vesæla j Hormungenne, Eitt Skiool fyrer Storm-Vidrenu, Eirn Skugge fyrer Ofur-Hitanum, nær ed Vijkingarner Volmast, so sem annad Hret-Vidre a mote einum Vegg.

5. Þu læger Haafadann hinna annarlegu, lijka sem Hitenn giorer j þurrum Stad, so Hitenn

tenn fordiarfe Vijnvidar-Kvistuna Vijkinganna, og Skijenn giefe þo samt Skuggann.

6. Og DROTTinn Zebaoth mun giora ollu Folke uppa þessu Fiallenu eitt feitt Giestabod, eitt Giestabod af klaaru Vijne, af Feite, af Merg, af Dreggiarlausu Vijne.

7. Og hann mun a þessu Fialle j burt taka (a) Hiupinn, þar allt Folk er med sveipad; og þa Byrgingena sem aller Heidingiar eru med byrgder.

(a) (Hiupenn) Sem þeir Daudu sveipast med, þad er, Hann mun giora þa enu Daudu Lifande.

8. Þviad hann mun Daudann uppsvelgia Eylijflega. Og * DROTTinn DROttinn mun af þurka Taarenn af allra Andlite, og hañ mun j burt taka þa Forsmaan sijns Folks j ollum Londum, Þviad DROTTinn hefur þad sagt. *Opb: B: 7,17. c. 21, 4.

9. A þeim Tijma mun sagt verda, Sia þu! þad er. Vor GUd uppa hann vier vonum, og hann mun hiaalpa oss, Þad er DROTTinn, uppa hvorn vier vonum, so þad vier gledium oss og sieum glader j hans Hiaalpræde.

10. Þviad Hond DROTTins hvijlest uppa þessu Fiallenu. Enn Moab mun under honum j sundur þrestktur verda, lijka sem Straa þad sundur þrefkest, og so sem Saurende.

11. Og hann mun breida ut sijnar Hendur midt a medal þeirra, lijka sem eirn Sund-Madur breider þær ut til Sundsins, og hann mun lægia þeirra Vols medur Armleggium sinna Handa.

12. Og beygia þann Stirkleikenn ydvarra hærra Murveggia, og lægia þg, og j Dupt allt til Jardar nidur fleygia.

## XXVI. Capitule.

Glede-Saungur Truadra fyrer Guds Naad og Saalar-Velferd.

A þeim Tijma mun soddann Kvæde sunged vera j Landenu Juda. Vier hofum eina Ofluga Borg, Murarner og Veriurnar eru Hiaalp.

2. Laated upp Dyrnar, so ad þar inngange þad Riettvijsa Folked, sem Truna vardveiter.

3. Þu helldur jafnann Fridenn epter vissu Fyrerheite, Þvi Menn treysta a þig.

4. Þar fyrer þa treysted uppa DROTTinn Eylijflega, þviad GUd DROTTinn er eitt Biarg Eylijflega.

5. Og hann beyger þa somu sem byggia a Hædenne, þa haau Borgena nidurlæger hann, Jaa, hann hrinder henne til Jardar, so þad hun liggur j Dupte.

6. So ad hun verde med Footum trodenn, Ja med Footum Voladra, med Hælum Fæatækra.

7. Enn Vegurenn Riettferdugra er sliettur, Fotstijgenn Riettvijsra giorer þu Beinann.

8. Þviad vier vonum uppa þig DROTTinn! a Veigenum þinna Riettinda, Hiartans Lysting stendur til þijns Nafns, og þinnar (a) Minningar.

(a) (Minningar) Þad er þinnar Predikunar og Ords, Giored þad j mijna Minning.

9. Af Hiarta gyrnest eg þijn a Nottunne, þar ad auk med mijnum Anda j mier vakna eg snemma til þijn. Þviad nær ed þijn Riettinde ganga j Landenu, þa læra þeir Innbyggendur Jardarennar Riettvijsena.

10. Enn þo ad Ogudlegum verde Naadenn frammbodinn, þa læra þeir þo ecke Riettvijsena. Helldur giora ad eins jlla j Riettvijsu Lande, þviad þeir sia ecke þa Dijrdar-Vegsemd DROTTins.

11. DROttinn! Þijn Hond er upphafenn, þad sia þeir ecke, enn þa nær ed þeir sia þad, þa munu þeir til Skammar verda, j þeirre Vandlætingu yfer Heidnum Þiodum, Þar ad auk muntu foreyda þeim med Ellde, þar ed þu foreyder þijnum Ovinum med.

12. Enn oss muntu DROTTinn! Fridenn til senda, þviad allt hvad vier utriettum þad hefur þu giefed oss.

13. DROTTinn GUd vor! þar drottna

na enn adrer Herrar yfer oss enn þu, Enn vier hugsum þo alleinasta til þijn og þijns Nafns.
14. Hiner Daudu blijfa ecke lifande, Hiner Frammlidnu standa ecke upp. Þviad þu hefur vitiad þeirra og afmoad þa, og ad ongvu giort alla þeirra Minning.
15. Enn þu DROTTinn! fer oaframm medal Heidenna Piooda, Þu fer einatt oaframm medal Heidenna Piooda, audsyner þijna Vegsemd, og kiemst langt a burt allt til Enda Veralldarennar.
16. DROTTinn! nær ad Hormungenn er fyrer Hondum, þa vitia Menn þijn, nær ed þu agar þa, kalla þeir soargrætelega.
17. Lijka so sem Oliett Kona, nær ed hun skal nu fæda, þa hefur hun Kvol, kallar upp i sijnum Harmkvælum, So geingur þad oss eirnenn, DROttinn! fyrer þijnu Auglite.
18. Þar erum vier og eirnenn þungader, og vier hofum Hriggd, so ad vier gietum varla Andardrættenum noad. Þo gietum vier ecke Landenu vid hioalpad, og þeir Byggendur a Jardrijkenu vilia ecke falla.
19. Enn þijner hiner Daudu munu lifa, og medur Lijkomum upp rijsa. Vaked upp og lof segied, þier sem ligged j Jordu! þviad þijn Dogg er su Dogg hins Græna Vallarins, enn þu munt þvi Daudra Landenu nidur kasta.
20. Far þu mitt Folk jnn i þitt Svefnhus, og lyk aptur Dyrnar epter þier, Geym þig um lijted Augabragd, þangad til ad Reidenn er hioa geingenn.
21. Þviad sioa þu! DROttinn mun ut ganga af sijnum Stad, til ad vitia Landsins Innbyggiaranna Illgyrne yfer þa, so þad Landed mun openbera þeirra Blood, og ecke leingur fela þa sem drepner eru þar jnne.

## XXVII. Capitule.

Esaias talar um Eydelegging (I) þeirra er Offokn veitte Guds Sofnude; og (II) Jerusalems Innbyggiara, vegna þeirra Vanvitsku.

I. Aþeim Tijma mun DROTTinn vitia medsijnu harda, mikla, og sterka Sverde, bæde þess Leviathans sem eitt sliettur Hogg-Ormur er, og þess Leviathans sem eitt bingur Hogg-Ormur er, og hann mun drepa þann Drekann sem j Sionum er.
2. A þeim Tijma mun sunged vera af Vijngardenum hins besta Vijnsins.
3. Eg DROTTinn geyme hann, og vokva hann snarlega, so ad hans Lauf-Blod missest ecke, Eg vil Dag og Nott bijvara hann.
4. Gud hann er mier ei reidur, Eg villde eg mætte beriast vid Þyrna og Þysla, þa villda eg rusta til þeirra, og brenna þa upp j eirne Hrugu.
5. Hann mun hallda mier vid minn Stirkleik, og giora Frid vid mig, Fridenn mun hann vijst giora vid mig.
6. Þad mun þo, lijka vel þar ad koma, þad Jacob mun rætast, og Israel blomgast og grænkast, so ad þeir Jardrijked med Avoxtum upp fylle.
7. Hann verdur þo ecke slegenn, liika sem ad slæge hann hans Ovíner. Og verdur ecke deyddur, so sem deyddu hann hans Oviner.
8. Helldur dæmer Þu þa med Moata, og lætur þa lausa, nær ed þu hefur angrad þa medur þijnum hvossum Vinde, sem er med Austann Vindenum.
9. Þar fyrer þa munu Synder Jacobs þar fyrer afmoata, og þad er su Nytseminn þar ut af, þad hans Synder verda burt teknar, j þvi, þad hann giorer alla Steina (a) Alltaresins, lijka so sem sundurmolada Steina, ad Osku, so ad þar verdur ecke epter neirn Lundur nie Bijlæte.

(a) (Alltaresins) Þad er, Alla þeirra Afgudadijrdkun.

II. 10. Þviad su hin sterka Borgenn mun einsleg verda, þaug hinu fogru Husenn munu kollkostud og yfergiefenu verda, lijka sem onnur Eydemork, so ad Koalfar munu þar j fædast og hvijlast, og þar Kvistu af bijta.
11. Hennar Kvister munu af Þurk j sundur springa, so ad Konur munu koma og kveikia þar Ellda med. Þviad þad er eitt

Fæviist Folk, þar fyrer mun og eirnenn sa, sem þa hefur giort ecke j Brioste kienna um þa, og hann sem þa hefur skapad mun ecke vægenn vera vidur þa.

12. A þeim Tijma mun DROTTenn (b) utkasta, i fra Backanum Vatnsins, allt til Lækiarins Egypti, og þier Israels Born! munud samann safnast eirn epter ødrum.

(b) (Utkasta) So sem þa menn kasta Korne upp j Hlødu.

13. A þeim Tijma mun blaased vera med einum miklum Herludre, þa munu og koma þiner fortopudu ur Landenu Assyria, og þiner utreknu j Egyptalande, og munu tilbidia DROTTinn uppa þvi Heilaga Fiallenu til Jerusalem.

## XXVIII. Capitule.

*Esaias talar (I) um Eydelegging þeirra Kongs Rijkia Israels og Juda, og (II) um Christum, þann Hyrningar Stein Truadra.*

I. Vei þeirre prydelegre Coronu þinna Fordrucknu af Ephraim, þeim følnudum Blomstrum hennar lystelegrar Pryde, hvor ed stendur upp yfer einum Feitum Dal, þeirra þinna somu sem um Koll vellta af Vinenu.

2. Sioa þu, ad einn Sterkur og Volldugur af DROTTne, lijka sem ein Hagl-Hrijd, lijka sem eitt skadsamt Hret-Vidre, lijka sem eirn oar-Foss, sem megtuglega frambrytst, mun med Vallde jnnloatenn j Landed.

3. So þad þinn prydelega Coronann þinna Fordrucknu af Ephraim verde med Footum nidur trodenn.

4. Og þad følnada Blomstred hennar liuflegrar Pryde, hvort ed stendur upp yfer einum feitum Dal, mun vera lijka sem þad fullvaxed er fyrer Sumared, hvort ed fordiarfast þa er Menn sioa þad enn nu hanga a sijnum Kvistum.

5. A þeim Tijma mun DROTTinn Zebaoth vera ein elskuleg Corona, og eirn Prydelegur Krans, þvi sijnu Folke sem epter er ordid.

6. Og þeim eirn Ande Doomsins sem j Doomenum sitia, og Styrkleikur þeim sem j fra Strijdenu koma aptur til Borgar-Hlidsins.

7. Þar med eru þesser eirnenn Vijngalder ordner, og hrasa af sterkum Drick, Þviad hvorer tveggiu, Presturenn og Prophetinn eru gallder af sterkum Drick, eru dreckter j Vijnenu, og detta um Koll af sterkum Drick, þeir galast j Spaadoomenum, og (a) foalma til Doomsins.

(a) (Faalma) Eiru druckenn Doomare utspyrt Doomenum, eins og þad fellur þønum j Munn, eins segia og þeir gøldu Spaamenn, so sem þeim fellur þad þa j Gied.

8. Þviad øll Matbord eru full med Spyu og Oþeckt, j øllum Stodum.

9. Hvorium skal hann þa kienna þa Visdurkienningena? Hvorium skal hann þa giefa ad skilia þa Predikunena? Þeim sem afvander eru af Miolkenne, þeim sem j burt tekner eru af Brioostunum.

10. Þviad (þeir (b) segia) Biodtu hier, Biodtu þar, Biodtu hier, Biodtu þar, Bijdtu hier, Bijdtu þar, Bijdtu hier, Bijdtu þar, Hier nockud lijted, þar nockud lijted.

(b) (Þeir segia) Þad er, Þeir Spottarar.

11. *Nu vel, hann mun eitt Sinn med Haadgiornum Vorum, og med annarlegre Tungu tala til Folks þessa, hvoriu ed þetta verdur nu predikad. *1 Cor. 14, 21.

12. Þa hafa Menn Hvijld, þa endurnæra Menn þa (c) mæddu. So verda Menn um kirrt, og vilia þo ecke soddann Predikan.

(c) (Mæddu) Samvitskunnar Frid ackta þeir einskis, sem af Trunne kiemur, helldur spotta Lærdom Truarennar, og forlaata sig uppa Verkenn.

13. Þar fyrer skal þeim eirnenn Ord DROTTins jafnt so verda, Biodtu þar, Biodtu hier, Biodtu þar, Biodtu hier, Bijdtu hier, Bijdtu þar, Bijdtu hier, Bijdtu þar, Hier nockud lijted, Þar nockud lijted, So ad þeir j burt gange, og a Bak aptur falle, sundurknosest, Fiotrader og Fangader verde.

14. Af

14. Af þvi þa heyred nu Ord DRottins þier Spottarar, þier sem drottned yfer þessu Folke, sem til Jerusalem er!

15. Þviad þier seged, Saattmaala hofum vier giort vid Daudann, og Samtok haft vid Helvijted, nær ed Vatnsflooded ad kemur, þa mun þad ecke hitta oss. Þviad vier hofum Lygena giort oss ad Athvarfe, og Hræsnena vora Hlijfdar-Vernd.

II. 16. Þar fyrer seger DROTTinn DROTTinn, *Sioa þu, ad eg legg i Zion eirn Grundvallar-Stein, eirn proofadann Stein, eirn kostulegann Hyrningar-Stein, sem vel er Grundvalladur, Hver hann truer sa (d) flyr ecke. *Rom. 9, 33. 1 Petr. 2, 6.

(d) (Flyr ecke) Jll Samvitska flyr lijka i giegnum eirn Jarn Mur, ef þad være mogulegt, so hrædelega ognar henne, og ottast so snøgat sem nockur Reyd kiemur ad Hondum, Enn eitt Truad Hiarta stendur oruggt, og spottar eirnen Port Helvijtanna.

17. Og Eg mun Doomenn setia til Mælis-Snuru, og Riettvijsena til Vigtar. Þa mun Hagled þad falska Athvarfed fordrijfa, og Votnenn skulu þeirre Verndar-Hlijfdenne j burt fleyta.

18. So ad ydar Saattmaale vid Daudan verde laus, og ydart Samtak vid Helvijted hafe ongvann Stad. Og nær eitt Vatns-Flood ad kiemur, mun þad ydur undertroda, jafnsnart sem þad framm geingur mun þad ydur j burt taka.

19. Kiemur þad ad Morgne Dags, þa skier þad ad Morgne Dags, Lijka so eirnenn hvort þad kiemur Daga edur Nætur. Þviad alleina Freistingenn kienner ad merkia Orded.

20. Þviad Sængenn er so þraung ad þar veiter ecke af, og Abreidann so stutt ad þeir verda ad kreppa sig þar under.

21. Þviad DROTTinn mun taka sig upp, lijka so sem a Fiallenu Prazim, og reidast, lijka sem j Dalnum Gibeon, so ad hann giore sitt Verk med einum odrum Hætte, og þad hann giore sitt Erfide med odru Moote.

22. Þvi laated nu af ydrum Spieskap, so ad ydar Bond verde ecke hardare, þviad eg hefe heyrt eina Fordiorfun og Foreydslu, sem skie mun af DROTTne DROTTne Zebaoth j allre Verolldenne.

23. Laated ydur j Eyrum loda og heyred mijna Raust, hygged ad, og heyred mijna Rædu.

24. Hvort plæger eda eriar, edur erfidar eirnenn Akurkallenn med Jafnade sinn Akur til Kornsædis?

25. Er ei so, ad þa nær ed hann hefur giort hann jafnsliettann, þa dreiser hann Vichen, og kastar Kumine, og soaer Hveitenu og Byggenu, einu sier hvoriu j þann Stad ed hann vill hafa þad, og þær adrar Grasa-Jurter j sinn Stad.

26. Lijka so agar þa og þeirra Gud med Doome, og mentar þa.

27. Þviad Menn þreskia ecke Viche med Þreskingar Verkfære, laata ei Vagnhiooled ganga yfer Kumined, helldur beria þeir af Viched med Staf, og Kumined med Prike.

28. Þeir mala þad, so þar gioreft Braud af, og j sundur-þreskia þad ecke so med ollu, ad þad verde ad ongvu, lijka sem þa, nær ed þad yrde med Vagnahioolum og Hestum j sundur-þreskt.

29. Soddann skier eirnenn af DROttne Zebaoth. Þviad hans Raad er dasamlegt, og kiemur þvi merkelegana af Stad.

## XXIX. Capitule.

Esaias talar (I) um Hersetu Jerusalems Borgar; (II) um Blindne Gydinganna, og (III) Apturhvarf Heidingianna.

I. Vei (a) Ariel, Ariel, þu Borgenn Herbudanna Davids, þier hallded Artijder og Helga Daga.

(a) (Ariel) Þydest Guds Leon: so nefnest her Borgenn Jerusalem, af þvi, ad GUd hafde giort hana volldugа. En nu aatte hun ad kallast Guds Leon, mote hveriu Gude villde beriast.

2. Enn eg vil veita Angist Ariel, so ad hun sie hrigg og syrgiande, og hun skal mier ein riett Ariel vera.

3. Þviad eg vil umkringia þig alla vega, og

giora þier Angist med Hervirke, og Torf=Veg=ge upp giora lcata j kringum þig.

4. Þa skalltu nidurlægd verda, og ur Jordu tala, og ut ur Molldardupte medur þijnu Moale mogla, so ad þijn Raust sie lijka sem eins Galldramanns nedann ur Jordunne, og burt ur Mollderne uthvæsa þijnu Moale.

5. Og sa Mann=Fiøldenn sem þier mun j sundur dreifa, mun so margur vera sem eitt þunnt Molldar=Ryk, og sa Fiøldenn Vijkinganna sem fiukande Agner, og þad sama skal snart skyndelega skie.

6. Þviad þijn mun af DROTTne Zebaoth vitiad verda, med Stoor=Vidre, og Jard=Skialfta, og miklum Reidar=Þrumum, med Hvirfel=Vinde og O=Vedreattu, og med Loga þess foreydanda Elldsins.

7. Enn lijka sem ein Syn a Nottenne j Draume, so skal vera sa Fiøldenn allra Heidenna Pioda sem strijda a mote Ariel, aasamt med ollu þeirra Lide og Hervirke, og þeir sem ad henne þreyngia.

8. Þviad lijka so sem ad Hungradann dreymer þad hann þykest neyta, Enn nær ed hann vaknar þa er hans Saala samt toom, Og lijka sem þad Þyrstann dreymer, þad hann mune drecka, Enn nær ed hann vaknar þa er hann Maattlaus og þyrstur, So skal vera sa Fiøldenn allra Heidingia, sem strijda a mote þvi Fiallenu Zion.

II. 9. Vered Felms=fuller og nidurslegner, Forblinded ydur, og vered druckner, og þo ecke af Vijnenu. Um Koll vellted, þo ecke af sterkum Drick.

10. Þviad DROTTinn hefur jnnskeinkt ydur eirn Anda þess fasta Svefnsins, og tilluckt ydar Augu, ydar Spaamenn og Hofdingia, aasamt Siaaendunum, hefur hann blindad.

11. So þad Sioner allra ydra Spaamanna munu vera ydur lijka sem Ord eirnrar Innsigladrar Bookar, Hvør, ef ad hun verdur feingenn þeim ed lesa kann, og sagt so, Les þu þad, Og hann segde, Eg kann ecke, þviad hun er Innsiglud.

12. Eda lijka so sem þa, nær ed hun yrde þeim feingenn sem ecke kann ad lesa, Og hann segde, Les þu þad, og hann segde, Eg kann ecke ad lesa.

13. Og DROTTinn seger, * Þar fyrer ad Folk þetta naalægest mig med sijnum Munne, og heidrar mig med sijnum Vorum, enn þeirra Hiarta er langt fra mier, Og oottast mig epter Mannanna Bodordum sem þeir kienna. * Matth. 15, 8. Marc. 7, 6.

14. Þar fyrer vil eg og eirnenn undarlegana umgangast med þessu Folke, Jaa, hid allra undarlegasta, so ad * Spekenn þeirra Spekinga under gange, og þad Skinsemenn þeirra Vitringa (b) forblindud verde.

* 1 Cor. 1, 19.

(b) (Forblindud) Þviad Krossens Ord gjører þa alla blinda, galda, og afsinna, af þvi eingenn verdur Riettlaatur ut af Løgmaalsins Verkum; Item, ad sa Gamle Madurenn hlytur ad deydast og dæmast fyrer Ord Andans, hvør ed straffar Verølldena fyrer Syndena.

15. Vei þeim er dulder vilia vera fyrer DROTTne, til ad fela sitt aaform, og sijna Giorninga ad hallda j Mirkrenu, og segia, Hvør sier oss? Og hvor þecker oss? Hvørnenn erud þier so rangsnuner?

16. Lijka so sem þa ad hugsade Moorenn Leirsmidsins so, og þad Verked segde af sijnum Meistara, Hann hefur mig ecke giort, Og Leir=Potturenn segde af sijnum Leir=Smid, Hann þecker mig ecke.

17. Nu vel. Þad er nu um eina mioog litla Stund ad giora, þa skal (c) Libanon eitt Sliettlende verda, og þad Sliettlended skal fyrer Skoog reiknad verda.

(c) Libanon er Jerusalem, hvør ed af Libanons Vide var biggd.

III. 18. Þviad a þeim sama Tijma munu hiner * Daufu heyra Ordenn Bookarennar, og Augunn Blindra munu sioa ur Mirkrenu og Dymmunne. * Matth. 11, 5. Luc. 7, 22.

19. Og

19. Og hiner Fatæku munu ad nyu gle-
diast j DROTTne, Og hiner Fatæku me-
dal Mannanna munu glader vera j þeim Hei-
laga Jsraels.
20. Nær ed þeir Vijkingarner hafa eirn
Enda, og þad mun utgiort vera um þa Spot-
tarana.
21. Og ad þeir aller afmaader verde sem
vaka til þess ad uppbyria (d) Mæduna, hvorier
ed koma Folkenu til ad syndgast fyrer Predi-
kan, og veita þeim Epterfør sem þa aavijta j
Portenu, og burt snua fyrer Lygar j fra hi-
num Riettferduga.

(d) (Mæduna) Rangann Lærdom og Verk.

22. Þar fyrer seger DROTTinn, sem
frelsad hefur Abraham, so til Hussens Ja-
cobs. Jacob skal ecke meir til Skammar ver-
da, og hans Andlit skal ecke meir skammast
sijn.
23. Þviad nær ed þeir siaa sijn Born, þau
Verkenn minna Handa a medal sijn, þa mu-
nu þeir helga mitt Nafn, og þeir munu helga
þann hinn Heilaga j Jacob, og oottast þann
Gud Jsraels.
24. Þviad þeir sem soddann Villu-Anda
hafa munu Skilningenn medtaka, og þeir
Þvættarar munu sig menta laata.

## XXX. Capitule.

Um Samband Gydinga, sem þeir giordu aa móte Guds Vilia vid Egyptska.

Vei þeim Frahverfum Bornum, seger DROttinn, sem aan mijn taka Raad, og aan Mijns Anda Hlijfdar leita, til ad auka eirnre Syndenne yfer adra.
2. Þeir sem ofan fara j Egyptaland, og adspyria ecke minn Munn, so ad þeir stirke sig med Magt Pharaonis, og hlijfe sier under Skugganum Egyptalands.
3. Þviad sa Stirkleikurenn Pharaonis skal ydur til Skammar snuast, og su Hlijfdenn under Skugganum Egyptalands til Smaa-nar.
4. Þeirra Hofdingiar hafa vel vered til
Zoan, og þeirra Sendebod hefur komed til Hanes.
5. Enn þeir hliota þo aller til Skammar ad verda, yfer þvi Folkenu sem þeim kann ein-genn Nytsemd ad ad vera, hvorke til Hiaalpar nie annara Nóta, helldur alleinasta til Skam-mar og Spotts.
6. Þesse er su Byrdenn yfer þeim Dyru-num, sem j moote Sudrenu fara, Hvar ed eru Leon og Leona-Innur, Joa, Nodrur og Gloande Flugdrekar, j Landenu Hormun-garennar og Harmkvælesins. Þeir flytia sitt Gots a Hriggium Folanna, og sijna Fiesio-du uppa Bake Ulfalldanna, til þess Folksins sem þeim kann ecke neitt Gagn ad ad vera.
7. Þviad Egyptaland er eckert, og þeirra Hiaalp er forgiefens. Þar fyrer predika eg þar so utaf, ad Rahab skal sitia kirr þar til.
8. So far þu nu, og skrifa þad fyrer þeim a eitt Spialld, og teikna þad j eina Book, so ad þad vare um Alldur og ad Eylijfu.
9. Þviad þad er ohlyded Folk, og lygenn Born, þau sem ecke vilia heyra Logmaal DROTTins.
10. Helldur segia til Siaaarans, Þier skulud ecke siaa, og til Tilsionarmannanna, Þier skulud ecke skoda oss þann rietta Lærdom. Enn Prediked oss giedfellt, og skoded oss þad sem a Taalar dregur.
11. Vijked af Veigenum, Fared j burt af Brautenne, Laated þann hinn Heilaga j Jsrael laata af hiaa oss.
12. Þar fyrer seger hinn Heilage j Jsrael so, Med þvi, ad þier j burt kasted þessu Ordenu, og forlaated ydur uppa Ofbellde og Þverlynde, og treysted þar uppa.
13. Þa skal ydar soddan Odygd vera Lij-ka sem ein Sprunga j Haaum Murvegg, nær ed hun tekur ad glidna, þa mun hun miog snarlega og oforvarandis jnn detta og nidur hrynia.
14. So sem þa eirn Leyrpottur verdur j sundur brotenn, so Mann j sundur molar hann, og væger honum ecke, so ad ut af hans Bro-

tum finnest eckert Skurn, þar Elld mætte j bera fra Elld-Stadnum, edur Vatne med ausa ur einum Brunne.

15. Þvi so seger DROTTinn DROTTinn, sa hinn Heilage j Jsrael. Ef ad þier værud (a) kirrer, þa yrde ydur hiaalpad. Og fyrer Kirrlæted og Vonena munud þier oslu-ger vera. Enn þier vilied ecke, og seged.

(a) (Kirrer) Þad er, ad lijda, þola og bijda.

16. Nei, Helldur vilium vier a Hestum undann flya (þar fyrer munud þier og Flottamenn verda) og a Gøngvorunum vilium vier rijda (þar fyrer munu ydrer Ofsækiendur noa ydur).

17. Þviad Þusund af ydur mun flya fyrer Heitingar-Ordum eins þeirra, Jaa fyrer Fimm Mønnum munud þier aller flya, þangad til ad þier verded epter, lijka sem eitt Mastur Trie uppa einu Fialle, og so sem Merke uppa eirnre Hæd.

18. Þar fyrer bidleikar DROttinn vid, ad hann sie ydur miskunsamur, og hefur sig þvi upp, ad hann sie ydur lijknsamur, Þviad Drottinn er eirn GUD (b) Doomsins, Sæler eru aller þeir sem hans bijda.

(b) (Doomsins) Ecke braads Sinnis, edur Grimleika, helldur straffar hann med Maata, og giører þad ecke um of, so sem þeir Hefndargiørnu plaga ad giøra.

19. Þviad Zions Folk mun til Jerusalem byggia, Þu munt eige graata, Hann mun þier Miskunsamur vera, nær ed þu kallar, Hann mun þier Andsvar giefa jafnsnart, og hann heyrer þad.

20. Og DROTTinn mun ydur j Hørmungenne Brauded, og j Angistenne Vatned giefa, Þviad hann mun þinn Lære-Meistara ecke meir j burt flya laata, helldur munu þijn Augu sia þinn Lære-Meistara.

21. Og þijn Eyru munu heyra þad Orded a Bak þier talad, Segiande, Þetta er sa Vegurenn, þann sama ganged, Anuars hvorke til Hægre nie Vinstre Handar.

22. Og þier munud saurga ydar Silfrada Afgude, og Gyllene-Klæde ydar Lijkneskia, og munud j burt kasta þeim, lijka sem Obeckta Saur, og segia til þeirra, far j burt.

23 Þa mun hann þijnu Sæde, þvi ed þu hefur j Akurenn saad, Regned giefa, og Brauded af Akursins Innkomu, og þess hins sama alls Nægter. Og þitt Fie mun sier a þeim Tijma Fædslu faa j einum vijdlendum Gras-Haga.

24. Þeir Uxar og Folarner sem Akurenn eria munu (c) sammeingad Foodur eta, hvort ad vinsad er med Vindskuflunne og Salldrenum.

(c) (Sammeingad) Surt med sætu samanblandad.

25. Og uppa øllum stoorum Fiollum og Stoor-Hædum munu adskilder Vatns-Lækar frammfliota, a Tijmanum þess mikla Mann-draapsins, nær ed (d) Turnarner nidur falla.

(d) Turnarner eru, þeir stooru Tyrannar, og hiner Volldugu.

26. Og Lioosed Tunglsins mun vera lijka sem Lioosed Soolarennar, Og Soolar-Lioosed mun Siøfallt skiærara vera enn nu er þad, a þeim Tijma, nær ed DROTTinn bindur um Saarenn sijns Folks, og græder þeirra Akomur.

27. Sia þu! Nafned DROttins kiemur ut af Fiarlægd, Hans Reide hun brennur og er miøg þung, Hans Varer eru fullar med Grimmd, og hans Tunga sem eirn fortærande Elldur.

28. Og hans Andarblaastur lijka sem eitt Vatnsfall, sem ad tekur allt uppa Haalsenn, til ad sundurdreifa Heidnum Þiodum, þangad til ad þær verda ad øngvu, og dreifa Folkenu hingad og þangad, medur Beisle j þeirra Munne.

29. Þa munud þier syngia lijka sem a eirnre Heilagre Haatijdar Noott, og gledia ydur af Hiarta, lijka so sem þa Menn ganga med Þijpna Hliodum til Fiallsins DROTTins, og til hins Øfluga Jsraels.

30. Og DROTTinn mun heyra laata sijna dijrdlega Raust, so ad þeir siae hans utriettann Armlegg, medur reiduglegre Ogn, og

og med Loga þess fortærandа Elldsins, med Geislum, med sterku Regne, og med Hagle.
31. Þviad Assur mun skielfast fyrer Raust DROTTins þess er hann slær med Vendenum.
32. Þviad Vondurenn mun med ollu j giegnum ganga, og beint aahæfa, nær ed DROTTinn mun hann koma laata yfer hann, medur Bumbum og Horpum, og allstadar j mote þeim ad strijda.
33. Þviad (e) Grøfenn er þegar j Giærdag tilbuenn, Joa, su hin sama er og eirnenn Kongenum tilbuenn, Diup og noogu vijd, so eru og Hybylenn þar inne, Elldur og noglegur Brennevidur, Sa Andarbloasturenn DROTTins mun upptendra þad, lijka sem Brennesteins Læk.

(e) (Grøfenn) Þad hlyder uppa Helvijte og þann eylijfa Elld, a Hebreisku Tophet, hvar um meira maa lesa, Jerem. 7, 31. og 19, 6.

## XXXI. Capitule.

Frelsun Gydinga (I) Ecke fyrer Stirk Mannanna; helldur (II) Alleina fyrer Guds Fulltijnge.

I. Vei þeim sem ofann fara i Egyptaland epter Hiaalp, og treysta uppa Hesta, og vona uppa Hervagna, af þvi þeir eru so marger, og a Riddarana, af þvi þeir eru miøg Sterker, og hallda sig ecke til hins Heilaga j Israel, og leita ecke DROTTins.
2. Enn hann er vitur, Og tilsender Ogiæfuna, og umvender ecke sijnum Ordum, helldur mun hann taka sig upp j giegn Husum þeirra Illskufullu, og j giegn Hiaalpenne (a) Illvirkianna.

(a) (Illvirkianna) Þad er Gydinganna, hvørier slijkrar Hiaalpar leitudu.

3. Þviad Egyptaland er Madur og einginn Gud, og þeirra Hestar eru Kiøt, og ecke Ande. Og DROTTenn mun sijna Hond utrietta, so ad sa hrase sem Hiaalpena veiter, og hann sem hiaalpad verdur, nidur falle, og ad þeir aller til samans tortijnest.
II. 4. Þviad so seger DROTTenn til mijn, Lijka so sem eitt Leon og eitt ungt Leon greniar yfer sinne Braad, nær ed Fioldenn Fiaarhyrdaranna kallar ad honum, þa skielfest hann ecke fyrer þeirra Hroope, hann er og eirnenn ecke sturande fyrer þeirra Mann-Fiolda. Lijka so mun DROTTinn Zebaoth ofan stijga, ad strijda a Fiallenu Zion, og a þess Hædum.
5. Og DROTTinn Zebaoth mun veria Jerusalem (Lijka sem ad Fuglarner giora med Vængiunum) hlijfa henne, frelsa hana, og ganga kringum j henne, og hiaalpa henne ur Vanda.
6. Snued aptur þier Israels Børn! þier sem miøg erud frahorfenn.
7. Þviad a þeim Tijma mun hvør sem eirn j burt kasta sijnum Silfurs og Gulls Skurgodum, hvør ad ydar Hendur hofdu giort, ydur til Syndar.
8. Og Assur skal falla, ecke fyrer Manns Sverde, og skal foreyddur vera, ecke fyrer Manns Sverde, Og þo mun hann fyrer Sverdenu flya, og hans Æskumenn munu Skattgillder verda.
9. Og þeirra (b) Hellusteirn mun af Hrædslu j burt fara, og hans Hofdingiar munu fyrer Mirkrenu a Flootta hallda, seger DRottinn, sem til Zion hefur Elld, og til Jerusalem eirn Ellds (c) Ofn.

(b) Þad er, Þeirra Kongur.
(c) (Ofn) Þad er, Sa sem til Jerusalem byr og a heima.

## XXXII. Capitule.

Her talast um Messiæ Rijke so sem (I) Naadarfullt, og (II) Rettlætes-fullt.

I. Sia þu! þar mun eirn Kongur rijkia, Riettvijsena til ad upphefia, og Hofdingiar munu drottna, Riettindenn ad efla.
2. So ad hvør Madur mun verda so sem sa ed fyrer Vinde er forvaradur, og so sem sa ed fyrer Steype-Regne er Innebyrgdur, so sem Vatnslækur a Þurrlende, so sem Skugge mikels Hellubiargs j þurru Lande.
3. Og Augu þeirra sem sia munu ecke

læta blinda sig, og Eyru þeirra sem til heyra munu giæta ad því.

4. Og þeir sem O-framm-syner eru munu Hyggindi læra, Og Tungann þeirra sem stama mun skijrt og hreint tala.

5. Eirn Heimskur Madur mun ecke leingur Høfdinge kallast, nie eirn ágiarn Madur eirn Herra kalladur verda.

6. Þviad hinn Heimske seger ut af Heimskunne, og hans Hiarta umgeingst med O-giæfunne, so ad hann uppbyrie Hræsne, og predike Villudom af DROttne, hvar med hann uthungre þær Hungrudu Sáler, og banne hinum Þyrsta ad drecka.

7. Þviad Verkfære hins Agiarna er ecke utan Skade, þviad hann finnur uppa Prette til Fordiorfunar Fátækum, med folskum Ordum, þa ed hann skal tala Riettindi vegna hins Fátæka.

8. Enn þeir Høfdingiar munu þad hugsa sem Høfdingium hæfer, og hallda þar vid.

II. 9. Standed upp þier Dramblátu Kvinnur, Heyred mijna Raust þier Dætur sem so athugalausar erud, Læted ydur j Eyrum loda mijna Rædu!

10. Þad er um eitt Ar og Dag ad giora, þa munud þier hinar Ugglausu! skielfast, þviad þar verdur eingenn Vijnyrkia, þar verdur og eingenn Innsafnan.

11. Hrædest þier Drambsømu Kvinnur, Skiálfed þier hinar Athugalausu, þar er fyrer Hondum, af Klædum ad fara, alsberum ad vera, og ad uppstytta sig um sijnar Lendar.

12. Harmur mun vera Akursins vegna, Jsa vegna þeirra lystelegu Akranna, vegna þeirra frióssómu Vijn-Triánna.

13. Þviad a Akurlondum mijns Folks munu uppvaxa Þyrnar og Þistlar, þar ad auk uppa ollum Glede-Husum hinnar glad-væru Borgarennar.

14. Þviad Hallernar munu j Eyde vera, og sa Borgar-Mugurenn mun ad ongvu verda, so ad þeir Turnarner og þau sterku Vijgenn verde Jardgryfiur æfenlega, og Villu-dyrunum ad Fagnade, Hiordenne til Haga.

15. Þangad til so leinge þad yfer oss uthelltur verdur sa Ande ut af Hædunum, þa mun Eydemørkenn ad Akre verda, og Akurenn fyrer Skoog reiknadur verda.

16. Og Riettурenn mun j Eydemørkenne byggia, og Riettlætid a Akrenum þar fyrer utann.

17. Og Riettlætesins Avøxtur mun Fridurenn vera, og þess Riettlætesins Nytseme mun vera eylijfleg Kirrd og Oruggleike.

18. So þad mitt Folk mun bua j Husum Fridarins, j Oruggre Byggingu, og j Okvijdenne Rosemd.

19. Enn Hagled mun vera ofan ad (a) Skoogenum, og su Borgenn þar fyrer nedann mun nedarlega verda.

(a) (Skoogenum) Jerusalem kallar hann Skoog, þvi hun var byggd af Libanon Skooge.

20. Sæler erud þier sem sáed alla vegana vid Vøtnenn, þviad þar meiged þier uppa ganga láta Fætur Uxanna og Asnanna.

## XXXIII. Capitule.

Esaias talar (I) um Bølvan yfer þeim Assyrisku; og (II) Blessan yfer Gydingum.

I. Enn vei þier þu Eydeleggiare! Meinar þu, ad þu muner ecke eyddur verda? Og þu Forsmáanare! meinar þu, ad þu muner ecke forsmáadur verda? Nær ed þu hefur Eydeleggingena utendad, þa muntu eirnenn eydelagdur verda, nær ed þu hefur giørt eirn Enda Forsmáanarennar, þa muntu lijka aptur forsmáadur verda.

2. DROTTinn! Miskuna þu oss! þviad þijn bijdum vier. Vertu þeirra Armleggur snemma, þar ad auk vort Hiálpræde a Hørmungartijmanum!

3. Láttu Folked undann flya fyrer þeim stoora Gny, og þa Heidnu j sundur dreifda verda, nær ed þu upphefur þig.

4. Þa munu þeir upptijna ydur so sem Herfáng. Lijka sem þa Eingesprettur uppnast upp-

upp, og sem þa Keser j sundur elltar verda
nær ed Menn ysersalla þær.

5. DROTTinn hann er upphafenn,
þviad hann bygger j Hædunum, hann hefur
Zion uppfyllt med Doome og Riettvijse.

6. Og þar mun a þijnum Tijma vera
Tru, og Yserdrottnan, Hiaalpræde, Spekt,
Vijsdomur. Otte DROTTins mun vera
hennar Fiaarsiodur.

7. Siaaed! þeirra (a) Sendebodar kalla
fyrer utann, og Einglar Fridarins graata
beisklegana (og segia) þeir Veigerner eru j
Eyde, þar geingur eingenn leingur a Stræ-
tunum.

(a) (Sendebodar) Sem sender voru til þeirra, og
þeir villdu þo ecke heyra þeim.

8. Hann helldur hvorke Tryggd nie Tru.

9. Hann burtkastar Stadonum, og aktar
ecke Folked neins. Landed liggur aumlega og
saargrætelega, (b) Libanon stendur skammar-
legana forhoggvenn, og Saron er lijka sem
annad Sliettlende, og Basan og Carmel eru
j Eyde.

(b) Libanon, Saron, Basan, Carmel, er eirnrar
Meiningar, og merker Jerusalem: þviad hun upp-
byggdest, og nærde sig af þessum Fiollum og Akur-
londum.

10. Nu vil eg taka mig upp, seger DROt-
tinn, Nu vil Eg hefia mig upp, Nu vil Eg
komast haatt.

11. Ad Straae erud þier Oletter, þier
munud fæda Haalm, ydar eigenn Ande mun
ydur fortæra so sem annar Elldur.

12. Þviad Folked mun ad Mworlijme
brennt verda, so sem þa afhoggvenn Þyrne-
klungur med Ellde uppbrennast.

13. So heyred nu, þier sem Fiarlæger
erud Hvad eg hefe giort, og þier sem naalæger
erud merked minn Stirkleika.

II. 14. Hiner Syndugu til Zion eru skelf-
der, Hrædsla er yser þa Hræsnara komenn
(og segia) Hvor er sa vor a medal þar kun-
ne ad bua j hiaa einum foreydande Ellde?
Hvor er sa a medal vor ad bua kunne hiaa
eylijfum Glædum?

15. Hvor hann geingur j Riettvijsenne,
og talar hvad riett er, Hvor hann hatar
Ranglindenn og Agyrndena, og tekur sijnar
Hendur j fraa þvi þad hann þigge ongvar
Skeinkingar, Hvor ad tilbyrger sijn Eyru,
so hann heyre ecke Bloodskulld, og lykur sijn
Augu aptur, so ad hann siaae eingenn Ill-
sku-Por.

16. Sa mun j Hædunum byggia, og
Biorgenn munu hans Virke og Verndar-
Hlijf vera. Hans Braud mun honum gie-
fast, sitt Vatn þad hefur hann vijst.

17. Þijn Augu munu þann Kongenn siaa
j sinne Fegurdar Pryde; Þu munt og siaa
þad Landed utvijdkad.

18. So ad þitt Hiarta mun undrast þad
nærsta, og segia, * Hvar eru nu þeir hiner
Skriftlærdu? Hvar eru Raadgiafarar?
Hvar eru nu Canzelerar? * 1 Cor. 1,20.

19. Þar ad auk muntu ecke siaa þad oflu-
ga Folked, þad Folked sem diupsett Tungu-
maal hefur, hvort ed Mann fær ecke skiled,
og af oskilianlegu Tungumaale sem ecke
kann ad skiliast.

20. Skoda þu Zion! vora Haatijda Borg,
þijn Augu skulu siaa Jerusalem, þa Oruggu
Bygging, eina Tialldbud sem ecke verdur j
burtu flutt, Hvorrar Naglar þad alldrei skulu
utdragast, og eingenn hennar Stag j sundur
slitenn verda.

21. Þviad DROTTinn mun þar Voll-
dugur hiaa oss vera, og þar munu vijdar
Vatnsgraser vera, so ad ongvu Skipe mun
þar med Arum yserroed, og ongvar Galei-
dur munu þangad sigla.

22. Þviad DROTTinn er vor Doma-
re, DROttinn er vor Meistare, DRot-
tinn er vor Kongur, hann hiaalpar oss.

23. Laated þa sijnar Snorur upp spanna,
þær munu þo ecke hallda So munu þeir og
eirnenn Merkenu a Mastrenu ecke utslaa. Þa
mun miklu kostulegu Herfaange utskipt ver-
da, so þad eirnenn hiner holltu munu ræna.

24. Og eingenn Jnnbyggiare mun þa segia, Eg em veikur, þviad þad Folked sem þar jnne bygger mun hafa Syndanna Fyrergiefning.

## XXXIV. Capitule.

Gud DRottinn vitiar Ovina sinnar Kyrkiu med Tijmanlegu og Eylijfu Straffe.

Komid hingad, þier enu Heidnu! og heyred, þier Folked! hygged ad þvi, Jørdenn hun heyre til, og hvad þar er jnne, Veralldar-Kringlann med hennar Avøxtum.

2. Þviad DROttinn er Reidur uppa allar Heidnar Þioder, og Gramur uppa allt þeirra Herlid, hann mun formæla þeim og øfurselia til Drꜳpsins.

3. Og þeirra hiner jhel slegnu munu j burt kastader verda, so ad af þeirra Lijkømum mun O-Þefur upp koma, og Fiollenn munu fliota af þeirra Bloode.

4. Og allt þad (a) Herlid Himensins mun forrotna, * og Himenenn mun til samans brotenn verda lijka sem annad Brief, og allur hans Herskare mun upp visna, Lijka sem annad Laufblad upp visnar a Vijn-Vide, og so sem eitt þurt Laufblad a Fijkiu-Trienu.

* Openb: B: 6, 13, 14.

(a) (Herlid Himensins) So kallar hann Gydinga-Folk, med þeirra Gudlegre Embættis Þionustu-giørd, hvar af þeir hielldu sig sem Himneskt Folk hiꜳ Heidingium.

5. Þviad mitt Sverd er drucked a Himnenum, og siꜳ þu, þad mun ofann fara yfer Edom, og yfer þad bolvada Folked, til Straffs.

6. Sverd DROTTins er fullt af Bloode, og þickt af Feite, af Bloodenu Lambanna og Hafranna, af Nijrna-Feitenne Hrutanna. Þviad DROTTinn helldur eitt Mannslag til Bozra, og eitt miked Manndrꜳp j Landenu Edom.

7. Þar verda Einhyrningarner medur þeim under ad kriupa, og Ung-Neytenn medur þeim Feitu Nautum. Þviad þeirra Land mun drucked verda af Bloode, og þeirra Jord boolgenn verda af Feite.

8. Þviad þad er sa Hefndar-Dagur DRottins, og Ared Endurgialldsins, ad hefna Zion.

9. Þar munu þeirra Læker verda ad Bike, og þeirra Jord ad Brennesteine. Jꜳ, þeirra Land mun ad brennande Bike verda, þad hvorke mun slockna Daga nie Nætur.

10. Helldur mun eylijfleg Svæla upp af þvi ganga, og um Alldur og Æfe mun þad j Eyde vera, so ad þar mun eingenn j giegnum ferdast ad eylijfu.

11. Helldur skal þad eignast Reyrdrummur og Tind-Svin, Natt-Uglur og Hrafnar skulu þar bua. Þviad hann mun draga þar yfer eirn Mæle-Þrꜳd, so ad þad j Eyde verde, og eitt Mælis-Lood, ad þad skal vera j Eyde.

12. So ad þeirra hiner Edal-bornu skulu kallast Herrar sem eckert Land eiga, og aller þeirra Høfdingiar hafa eirn Enda.

13. Og þar munu Þyrnar uppvaxa j þeirra Hollum, Netlur og Þyslar j þeirra Slotum, og mun vera eitt Bæle Drekanna, og Gras-Hage Struts-Fuglanna.

14. Þar munu til samans hlaupa Draugar og Skrijmsl, og eitt Troll mun þar ødru mæta, Natt-Draugar munu eirnenn þar sitt Bæle hafa, og sijna Hvijld þar finna.

15. Þar mun og eirnenn Tind-Svijned hreidra sig, leggia og utklekia under þess Skugga, so munu eirnenn Hræfuglarner þar til samans koma.

16. Leited nu j Book DROTTins og lesed., þar mun ecke j einu af þessu Brestur vera, og þar mun eirnenn ecke neitt missast, hvorke hitt nie þetta. Þviad hann er sa sem fyrer minn Munn bydur. Og hans Ande er þad sem þad til samans færer.

17. Hann sender Hlutfalled yfer þa, og hans Hond utskipter Mælernum a mille þeirra, so ad þeir eignest þad þar jnne ad eylijfu, og blijfe þar jnne um Alldur og Æfe.

## XXXV. Capitule.

Um Farsælld Guds Kyrkiu i þvi Nya Testamentenu.

Enn

Enn su Eydemørkenn og Obygdenn mun lyſteleg vera, og Sliettlendeð mun gledelegt standa, og bloomgast lijka sem Liliu⸗Gras.

2. Hun mun bloomgast og gledeleg standa j allskins Lyst og Fognude. Þvijad Dijrdenn Libani er henne giefenn, og Prydenn Carmels og Saron, þeir sioa þa Dijrdar⸗Vegsemd DROTTins, þa Fegurdar⸗Prydena vors GUds.

3. * Stirked Lunar Hendur, og endurlijfged þau Veikludu Knien. *Ebr. 12, 12.

4. Seged þeim efablondnum Hiortum, Vered hrauster j Hugannm, og vered ei Ottasleigner, Sioaed! ad ydvar GUd kiemur ad hefna, GUd sa ed endurgielldur, hann kiemur, og mun hiaalpa ydur.

5. Þa munu Augunn Blindra upp lukast, og Eyrunn Daufſra opnud verda.

6. Þa mun hinn Hallte upp stockva sem Hiortur, og Tungann hins Mallausa mun Lof segia. *Þvijad þar munu Vatns⸗Roaser j Eydemørkunne hingad og þangad fliota, og Vatns⸗Straumar um Sliettlendid.

*Joh: 7, 38.

7. Og hvar ed aadur hefur vered hord Grund, þar skulu Stodu⸗Votn vera, og hvar ed Þurrlendeð hefur vered, þar skulu Uppsprettu⸗Brunnar vera. Þar ed aadur fyrre hafa Hoggormar leiged, þar skal Gras, Reyr, og Stor standa.

8. Og þar mun Braut og Vegur vera, hvør ed kallast mun sa hinn Heilage Vegurenn, þar eingenn Saurugur mun uppa ganga. Og sa hinn same mun vera fyrer þa, so ad þeir ganged þar uppa, so þad eirnenn hiner Faavijsu kunne ecke ad villast.

9. Þar mun eckert Leon vera, og eckert Oarga Dyr mun þar uppa ganga, nie þar funded verda, helldur mun þar frij og ugglaust ganga meiga.

10. Þeir hiner Endurkeyptu DROttens munu aptur koma, og til Zion koma med Fagnadar⸗Kiæte, Eylijf Glede mun vera yfer þeirra Høfdum, Glede og Føgnud munu þeir hondla, og Hriggd og Sorg mun hliota j burt ad vijkia.

# XXXVI. Capitule.

Rabsake talar (I) Hæduglega, og (II) Drambsamlega.

I. Og þad skiede so a þvi Fiortanda aare Kongsins Ezechias, þad Kongurenn af Assyria Senacherib for upp j moote øllum føstum Borgum j Juda, og yfervann þær.

2. Og Kongurenn af Assyria sende (a) Rabsake fra Lachis til Jerusalem, til Kongsins Ezechia med mikelle Magt, og hann gieck til Vatns⸗Rennunnar hins efsta Dykesins, vid Veigenn hioa Akrenum Litarans.

(a) Rabsake þydest ædste Skeinkiare a Norrænu, þar fyrer høfum vier þad Norrænad hinn yppasta Skeinkiara.

3. Og Eliakim, Sonur Hilkia, Hofmeistarenn, og Sebna, Canzelerinn, og Joah, Sonur Assaphs, Skrifarenn, geingu ut til hans.

4. Og sa ypparste Skeinkiare sagde til þeirra, Seged þetta Ezechia, So seger sa hinn mikle Kongur, Sa Kongurenn af Assyria.

5. Hvada Traust er þad er þu treyster uppa? Eg helld, ad þu lætur so umtelia fyrer þier, sem þu hafer Road edur Magt til ad beriast. Uppa hvørn treyster þu þa? Ad þu ert fallenn fra mier?

6. Treyster þu uppa þann j sundurbrotna Reyr⸗Stafenn Egyptaland? Hvør, ef nockur stydur sig þar uppa, þa geingur hann jnn j hans Hond, og j giegnum stijngur hana, so giører Pharao Kongur Egyptalands, øllum þeim sem uppa hann treysta.

7. Enn villtu segia mier. Vier treystum uppa DRottinn GUd vorn, Hvørt er hann ecke sa, hvørs Hæder og Ollturu ad Ezechias hefur nidur broted, og sagt so til Juda og Jerusalem, Fyrer þessu Alltare skulud þier til bidia.

8. Nu vel, þa reyndu til vid minn Herra Kongenn af Assyria. Eg vil giefa þier Tvo

Þusund Hesta, Loattu sioa Hvort þu kannt hioa þier ad foa þa sem þar uppa rijda.

9. Hvornenn villtu þa bliifa fyrer einum Hofudsmanne hins minnsta Þienara mijns Herra? Og þu treyster uppa Egyptaland, fyrer Saker þeirra Hervagna og Riddaralids.

10. Þar med meinar þu, ad eg hafe oan DROTTins upp fared j þetta Land til ad fordiarfa þad, Joa, DROTTinn sagde til mijn, Far þu upp j þad Land og fordiarfa þad.

II. 11. Enn Eliakim og Sebna, og Joah, sogdu til þess ypparsta Skeinkiara, Tala þu vid þijna Þionustu-Menn a Syrlendskt Tungu-Moal, þviad vier skilium þad fullvel, og tala ecke vid oss Gydinga Moal, fyrer Eyrum Folksins sem uppa Murunum er.

12. Þa sagde sa ædste Skeinkiare, Hvort meinar þu, þad minn Herra hafe sendt mig til þijns Herra ad eins, eda til þijn, slijkum Ordum ad tala, og ecke miklu framar til þeirra Manna sem þar uppa Murnum sitia, so ad þeir med ydur ete sinn eigenn Þreck, og drecke sitt eiged Þvag?

13. Og sa ædste Skeinkiare stood og kallade med hoarre Raust a Gydinga Tungu, og sagde. Heyred þau Ordenn hins mikla Kongsins, Kongsins af Assyria.

14. So seger Kongurenn. Loated ecke Ezechiam tæla ydur, þviad hann kann ecke ad frelsa ydur.

15. Og loated ecke Ezechiam giefa ydur ofmiked Traust uppa DROTTinn, þad hann seger. DROTTinn mun frelsa oss. Og þesse Borg mun ecke giefenn verda j Hendur Kongsins af Assyria.

16. Hlyded ecke Ezechia, þviad so seger Kongurenn af Assyria. Gióred mier þad til Vilia, og ganged ut til mijn, þa skulud þier, hvor ydar sem eirn, af sijnum Vijn-Vide og sijnu Fikiu-Trie eta, og ur sijnum Brunne drecka.

17. Þangad til ad eg kiem og flyt ydur j eitt Land, þad lijka er sem ydart Land, Þad Land sem Korn og nytt Vijn er inne, Þad Land sem Braud og Vijngardar eru inne.

18. Loated ecke Ezechiam telia um fyrer ydur, þad hann seger, DROTTinn mun frelsa oss. Hafa nockud Guder Heidenna Þioda frelsad hvor sitt Land af Hende Kongsins j Assyria?

19. Hvar eru þeirra Guder til Hamath og Arpad? Hvar eru þeir Guderner Sepharvaim? Hafa þeir nockud frelsad Samariam af minne Hende?

20. Hvorier af allra þessara Landa Gudum hafa frelsad sitt Land af minne Hende? So þad DROTTINN skyllde frelsa Jerusalem af minne Hende?

21. Enn þeir þogdu, og svorudu honum ongvo, Þviad Kongurenn hafde so boded og sagt, Svared honum ongvo.

22. Þa komu þeir Eliakim, Sonur Hilkia, Hofmeistarenn, og Sebna, Canzelerenn, og Joah, Sonur Assaphs, Skrifarenn, med sundur rifnum Klædum, og sogdu honum þau Ordum þess ædsta Skeinkiara.

## XXXVII. Capitule.

(I) Hriggd, (II) Bæn, og (III) Huggun Ezechia.

I. Enn þa ed Kongurenn Ezechias heyrde þetta Reyf hann sijn Klæde, og tok a sig Hriggdar-Buning, og gieck inn j Hus DROTTins.

2. Og sende Eliakim Hofmeistara, og Sebna Canzelera, med þeim ellstu Kiennemonnum, med Hriggdar Buninge klædda, til Prophetans Esaia, Sonar Amos.

3. Ad þeir segde til hans. So seger Ezechias. Þetta er eirn Dagur Hormungar, Stroffunarennar, og Hoadungarinnar. Og er ei olijkt sem þa Bornenn eru ad Fædingu komenn, Enn þar er eingenn Kraptur til ad fæda.

4. Ad DROTTenn Gud þinn villde nockud

nockud heyra þau Ordenn Rabsakis, hvorn ed hans Herra, Kongurenn af Assyria, hafde sendt, til ad lasta þann Lifanda Gud, og til ad lyta Hann med svoddann Ordum, sem þad DROTTinn Gud þinn hefur heyrt. Og þad þu villder eina Bæn uphefia, fyrer þeim sem epter eru, sem enn eru epter.

5. Og Pionustu-Menn Kongsins Ezechia komu til Esaia.

6. Enn Esaias sagde til þeirra, Seged so ydrum Herra, DROTTinn seger so, Vertu ei Hræddur fyrer þeim Ordum sem þu hefur heyrt, medur hvorium þad Sveinar Kongsins af Assyria hafa nidrad mier.

7. Sioa þu, Eg vil giora honum eitt annad Hugarfar, og hann skal fea þad nockud ad heyra, þad hann fare heim aptur j sitt Land, og j sijnu Lande mun Eg lꝏta hann fyrer Sverde falla.

8. Enn þa ed sa ypparste Skeinkiare kom aptur, fann hann Kongenn af Assyria strijdande j moote Libna, þviad hann hafde heyrt þad hann være j burt farenn fra Lachis.

9. Þvi þar kom þad Rykte af Tirhaka Morlands Konge, segiande, Hann er utfarenn til ad strijda a moote þier.

10. Þa ed hann heyrde nu þad, sende hann Bod til Ezechia, og liet segia honum, Seged Ezechia, Kongenum j Júda, so, Lꝏttu ecke þinn Gud tæla þig, uppa þann ed þu treyster, og seger, Jerusalem mun ecke giefenn verda j Hendur Kongenum af Assyria.

11. Sioa þu! þu hefur heyrt hvad Kongarner af Assyria hafa giort ollum Londum, og foreydt þeim, og þu skyllder frelsadur verda?

12. Hafa nockud Guderner Heidingianna frelsad þau Londenn sem mijner Fedur hafa fordiarfad? Sem er Gosan, Haran, Rezeph, og Born Eden til Thelassar.

13. Hvar er sa Kongurenn til Hamath? Og sa Kongurenn til Arpad, og sa Kongurenn Borgarennar Sepharvaim, Hena og Jva?

14. Og þa Ezechias hafde teked vid Brieſenu af Sendebodanum, og lesed þad, gieck hann upp j Hus DROTTins, og breidde þad ut fyrer DROTTne.

II. 15. Og Ezechias badst fyrer til DRottins, og sagde.

16. DROTTinn Zebaoth! Þu Gud Jsraels, Þu sem situr upp yfer Cherubim, Þu Alleinn ert Gud yfer ollum Kongarijkium a Jordu, Þu hefur skapad Himenn og Jord.

17. DROTTinn! Hneig þu þijn Eyru og Heyrdu þad, Uppluk þijnum Augum, DROTTinn! og sioa þu, Heyr þu oll Ord Senacheribs, sem hann hefur sendt til ad lasta þann Lifanda Gud.

18. Sanninde eru þad, DROTTinn! ad Kongarner af Assyria hafa j eydelagt oll Kongarijke, med þeirra Londum.

19. Og hafa þeirra Godum j Elld kastad, þviad þeir voru ongver Guder, helldur Mannanna Handaverk, Stockar og Steinar, þeir eru tortijnder.

20. Enn nu, DROTTinn! Gud Vor, Hiꝏlpa þu oss af hans Hende, so þad oll Kongarijkenn a Jordu reyne þad, ad Þu Aleina siert DROTTinn.

III. 21. Þa sende Esaias, Sonur Amos, til Ezechia, og liet segia honum, So seger DRottinn Gud Jsraels, Um þad þu hefur bedid mig vegna Kongsins Senacheribs af Assyria.

22. Þa er þetta þad er DROTTinn seger af honum. Jungfruenn Dotter Zion hun forsmꝏr þig, og hæder ad þier, og Dotturenn Jerusalem hrister Hofuded epter þier.

23. Hvorn hefur þu smꝏnad og lastad? Yfer hvorn hefur þu þijna Raust upphafed? og upphafed þijn Augu j mote þeim Heilaga j Jsrael.

24. Fyrer þijna Pionustu-Menn hefur þu DROTTne Hꝏdung til lagt, og seger, Fyrer þann Fiolldann minna Hervagna em eg hier upp farenn a Hæder Fiallanna, vid

þa Sijduna Libanon, og hefe afhoggved hans hæfann Cedrus-Vid, med þeim hans utvoldum Grenetriæam, og j giegnum em eg komenn Hæḋernar til Enda þessa Skoogarins j Landenu.

25. Eg hefe uppgrafed og drucked Vötnenn, og hefe med mijnum Soolum uppþurkad öll þau hin nidrebyrgdu Vatns-Boolenn.

26. Enn hefur þu ecke heyrt þad eg fyrr meir giorde so, og þad eg breytte so fordum Daga, og giore nu so eirnenn, þad sterkar Borger verde nidur brotnar j Griot-Hrugur?

27. Og þad þeirra innbyggendur verde veiker og skielfder, og til Skammar giorder, og ad þeir verde ad Tun-Grasi og grænum Jurtum, lijka sem annad Hey a Ræfrum uppe, hvört ed upp visnar ædur enn þad er fullvaxid.

28. Enn eg þecke vel þinn Bustad, þijna Utgongu og Inngongu, og þitt Grimmdar-Æde a mote mier.

29. Med þvi þa ad þu Olmast so a mote mier, og þad þijn Drambseme er hier upp komenn fyrer mijn Eyru, þa vil eg setia eirn Hring j þijnar Naser, og eitt Beisl j þinn Munn, og leida þig þann sama Veg heim aptur sem þu komst hingad.

30. Enn þad skal vera þier til Merkis, Et þetta æred þad undertrodna, þad annad æred hvad sioalft vex. Pa id þridia æred nidur sæid og uppyrked, Planted Vijngarda, og eted þeirra Avoxtu.

31. Þviad þeir hiner frelsudu af Huse Juda, og þeir hiner eptervordnu munu enn aptur rotfestast under sier, og yser sig Avoxt bera.

32. Þviad af Jerusalem munu enn utganga þeir sem epter eru vordner, og hiner frelsudu af Fiallenu Zion. Svoddann mun giora Vandlætingenn DROTTins Zebaoth.

33. Þar fyrer seger DROTTinn so af Kongenum j Assyria, Hann skal ecke koma j þessa Borg, og hann skal þar ongre Pijlu ad skiota, og eingenn Herskiolldur skal þar fyrer koma, ongvann Virkis Vegg skal hann j kringum hana giora.

34. Helldur skal hann aptur snua þann sama Veg sem hann kom hingad, so ad ecke kome hann j þessa Borg, seger DROttinn.

35. Þviad eg vil vernda þessa Borg, so ad eg hiaalpe henne, minna vegna, og vegna mijns Þions Davids.

36. Pa for Eingell DROTTins ut, og sloo j Herbudum Assyrianskra Hundrad Fim og Attatijge Þusunder Manna. Og þa ed þeir stodu upp snemma um Morgunenn, Sioa þu, þa laa þar alls-stadar fullt med Dauda Lijkame.

37. Og Kongurenn af Assyria Senacherib svipte Herbudum, og for j burt, og snere heim aptur, og bleif til Ninive.

38. Og þad skiede so, þa ed hann badst fyrer j Huse Nisroch, Guds sijns, þa slou hann Syner hans, Adramelech og SarEzer, medur Sverde, og þeir flydu j Landid Ararat, og hans Sonur AssarHaddon vard Kongur j hans Stad.

## XXXVIII. Capitule.

Hversu ad Ezechias laa Dauð-Siukur.

A þeim Tijma vard Ezechias Daudsiukur, Og Spaamadurinn Esaias, Sonur Amos, kom til hans, og sagde til hans, So seger DROTTinn, Raadstafa þu þijnu Huse, þviad þu munt Deya, og ecke Lifa.

2. Pa snere Ezechias sijnu Andlite til Veggiar, og bad til DROttins, og sagde.

3. Minnstu DROttinn! a þad, hvornenn ad eg hefe geinged fyrer þier j Sannleika, med fullkomnu Hiarta, og þad giort hvad þier hefur lijkad! og Ezechias griet miøg.

4. Pa skiede Ord DROTTins til Esaia, og sagde.

5. Far þu af Stad, og seg Ezechia, So seger DROTTinn Gud þijns Fodurs Davids, Eg hefe heyrt þijna Bæn, og sied þijn Tar,

Tаar, Sioa þu, ad eg vil leingia þijna Lijfdaga um Fimmtan Aar.

6. Og vil þig samt med þessare Borg frelsa af Hende Kongsins j Assyria, þviad Eg vil Vernd veita þessare Borg.

7. Og haf þier þad til Teikns af DROttne, ad DROttinn mun þad sama giora hvad hann hefur talad.

8. Sioa þu, Eg mun Skugganu a Soolar Skijfunne Achas loata aptur um Tiju Lijnur til Baka ganga, yfer hvoriar ed hann hefur oadur geinged, so þad Soolenn skal ganga um Tiju Lijnur til Baka aptur a Soolar Skijfunne, yfer hvoriar ad hun er þo oadur geingenn.

9. Þetta er su Ritningenn Ezechia Kongsins Juda, þa ed hann hafde Siukur verid, og var Heilbrigdur vordenn af Krankdæmenu.

10. Eg sagda, Nu hlyt eg ad fara til Heliar Portdyra, þa minn Tijme var úte, þa eg hugde mier þo leingur ad lifa.

11. Jeg sagda, Nu moa eg ecke leingur sioa DROTTinn, Joa, þann DROTTinn j Landenu þeirra Lifendu, Nu moa eg ecke leingur sioa þa Menn, j hioa þeim sem sijna Æfe utlifa.

12. Mijn Æfe er lidenn, og fra mier j burtu rymd, so sem annad Fioarmanna Hreyse, og eg slijt mijna Lijfdaga j froa lijka sem eirn (a) Vefare. Hann þurrsygur mig upp, þu giorer eina Ending vid mig fra Deigenum til Kvolldsins.

(a) (Vefare) Lijka sem Þroadurenn slitnar fyrer ellnum Vefara, þar hann er midt j sijnu Erfide, oadur enn hann af veit.

13. Eg hugsade, Mætte eg enn lifa allt til Morguns, Enn Hann j sundur kramde j mier oll mijn Bein, Lijka sem annad Leon. Þviad Þu giorer ut af vid mig a Deigenum fyrer Kvollded.

14. Eg tijste sem Tranann og Svalann, og stunde lijka sem Dufa, mijn Augu villdu ut spryinga, DROTTinn! eg lijd Anaud, lina þu mier!

15. O hvorsu vil eg þad eptersegia! med þvi Hann hefur tilsagt mier þad, og giorer þad eirnenn, þar fyrer vil eg alla mijna Lijfdaga fordast fyrer soddann Harmkvælingu minnar Soalu.

16. DROTTinn! þar af (b) Lifa Menn, og þad Lijfed mijns Anda stendur med ollu j þvi sama, þviad þu lietst mig sofna utaf, og lijfgader mig.

(b) (Lifa Menn) Þad er, Af slijku þijnu Orde, þegar Þu fyrerhietst Lijfenu, enn ecke af vorum Kraptte, nie Eigenn Mætte.

17. Sioa þu, um Huggan var eg miog Angurbitenn, Enn hiartanlega þá hefur þu ad þier teked mijna Soalu, so ad h un fordiarfadest ei, þviad þu fleyger ollum mijnum Syndum a Bak þier aptur.

18. Þviad Helvijted þad lofar þig ecke, so prijsar þig og ecke Daudenn, og þeir sem nidur fara j Grofena, vænta ecke uppa þinn (c) Sannleika.

(c) (Sannleika) Þad er, Nadarennar og Lijfsins Fyrerheit.

19. Helldur alleina þeir sem lifa þa lofa þig, so sem ad nu giore eg. Faderenn mun Bornonum kunnann giora þiki Sannleika.

20. DROTTinn! Hioalpa þu mier, þa vilium vier Spila mijna Lofsongva, so leinge vier lifum j Huse DROTTins.

21. Og Esaias skipade ad taka Ploastur af Fijkium, og leggia yfer hans Soar, so ad hann yrde Heilbrigdur. Þa sagde Ezechias, Hvilijkt Teikn er þad, ad eg meige uppganga j Hus DROTTins?

## XXXIX. Capitule.

Drambseme Ezechiæ vegna sijns Auds.

A þeim Tijma sende Merodach Bal Adan, Sonur Bal Adan, Kongurenn til Babylon, Brief og Skeinkingar til Ezechiam, Þviad hann hafde heyrt, þad hann hafde siukur verid, og være nu stirkur vordenn aptur.

2. Þvi vard Ezechias gladur, og synde þeim

þeim sitt Fiehyrdslu Hus, Silfur og Gull, og Jurter, dijrdleg Smyrsl, og oll Husenn sinna Vopna, og allann Fiesiood sem hann hafde, Þar var ecke þad neitt ad Ezechias synde þeim ecke j sijnu Huse, og j hans Herradæme.

3. Þa kom Prophetenn Ezechias til Kongsins Ezechia, og sagde til hans. Hvad segia þesser Menn til? Og hvadann komu þeir til þijn? Ezechia sagde, Þeir komu ur fiarlægum Stodum til mijn, sem er j fra Babylon.

4. Enn hann sagde, Hvad hafa þeir sied j þijnu Huse? Ezechias svarade, Allt hvad j mijnu Huse er, þad hafa þeir sied, og þar er ei þad neitt ad eg hafe ei syndt þeim j mijnum Fiesioodum.

5. Og Esaias sagde til Ezechia, Heyr þu Ord DRottins Zebaoth!

6. Sioa þu! Soa Tijme kiemur, ad allt þad hvad j þijnu Huse er, og hvad þijner Ferdur hafa til samans dreged, allt til þessa Dags, þad mun j burt flutt verda j Babylon, so ad þar mun ecke neitt epterblijfa, seger DROTTINN.

7. Þar ad auk munu þeir taka þijn Born, sem ut af þier munu koma, og þu munt uppfæda, og þeir munu hliota ad vera Herbergis Sveinar j Garde Kongsins af Babylon.

8. Og Ezechia sagde til Esaias. Þad Ord DROttins er gott sem þu seger, og sagde, Sie ad eins Fridur og Tryggd um mijna Lijfdaga!

## XL. Capitule.

*Huggun og Fulltijnge Truadra fyrer JEsum.*

Hugged, Hugged mitt Folk, seger ydar GUD.

2. Talid vinsamlega vid Jerusalem, og prediked henne, ad hennar (a) Strijd hafe eirn Enda. Þviad hennar Misgiorningur er fyrergiefenn, þviad hun hefur (b) tvefalldlegt medteked af Hende DROTTINS fyrer allar hennar Synder.

(a) (Strijd) Er su Guds Þionustugiord j Gamla Testamentenu.

(b) (Tvefalldlegt) Sem er Fyrergiefning Syndanna, og Frijun og Frelsan fra Moyses Logmaale, þad er, Einunges Raad fyrer Syndena, Lijfed fyrer Daudann.

3. * Þar er ein Raust eins Predikara uti Eydemorkenne. Tilreided þier Veg DRottens, giored j Obygdeune sliettann Veg vorum GUde!

* Matth: 3, 3. Marc: 1, 3. Luc: 3, 4. Joh: 1, 23.

4. Aller Daler skulu upphefiast, og oll Fioll og Hoalsar skulu nidur lægd verda, og hvad Osliett er þad skal sliett verda, og hvad Ojafnt er þad skal eggsliett verda.

5. Þviad Dijrdenn DROTTins skal opinnberud verda, og allt Holld eitt med odru mun sioa, þad Muunur DROTTINS talar.

6. Þar seger ein Raust, Predika þu, og hann sagde, Hvad skal eg Predika? * Allt Holld er Hey, og Allur þess (c) Goode er so sem Akursins Bloomstur.

* 1 Pet: 1, 24. Jac: 1, 10.

(c) (Gode) Þad er, Oll þess God-Verk og Lijferne, sem Skinsemenn kann af stad ad koma og framkvæma.

7. Heyed þad uppþornar, Bloomstred visnar. Þviad Ande DROTTins blæs þar a. Joa, Folked er Heyed.

8. Heyed þad uppþornar, Bloomstred visnar, * enn Orded Guds Vors blijfur Eylijflega.

* Luc: 21, 33. 1 Pet: 1, 25.

9. Zion! þu sem predikar, Far þu uppa hoatt Fiall, Jerusalem! þu sem predikar, Hef þijna Raust upp med Magt, Hef þu upp, og ottast ei, Seg þu Borgunum Juda, Sioaed, Þar er ydar GUD!

10. Þvi sioaed, DROTTinn DRottinn kiemur vollduglegana, og hans Armleggur mun Drottna, Sioaed! hans Laun eru hioa Honum, og hans Bitalingur er fyrer honum.

11. Hann mun fodra sijna Hiord sem eirn Hyrder, Hann mun Lombunum safna a sijna Arm-

Armlegge, og þau j sinne Kiolltu bera, og leida Lamba Mædurnar.

12. Hvor metur Votnenn med Hnefanum, og Innelykur Himenenn med Spønnenne? Og yfer-grijpur Jordena med einne Þriggia Þumlunga Breidd? Og vegur þau Fiollenn med eirnre Vigt, og Hoalsana med eirne Vog?

13. * Hvor fræder Anda DROttins, og hvor Roadgiafe under vijsar hønum?

*Rom: 11, 34. 1 Cor: 2, 16.

14. Hvorn spyr hann ad Roadum, sa ed hønum Skilningenn giefe, og kienne hønum þann Veigenn Riettarins, og kienne hønum þa Vitskuna, og undervijse hønum þann Veigenn Skilningsins?

15. Sioa þu! ad hiner Heidnu eru aktader sem sa Drope hvor ad j Skiolunne verdur epter, og svo sem ein lijtil Øgn er j Metaskoalunne blijfur epter. Sioa þu! Ad Eyarnar eru sem Dupt-Korn.

16. Libanon være hellst til lijtill til Elldsins, og hans Villu-Dyr ecke anægianleg til Brenne-Offursins.

17. Aller Heidingiar eru ecke neitt fyrer Hønum, og lijka so reiknader sem Hiegoome, og þad sem ecke er Þared.

18. Hvorium vilied þier þa eptermynda GUD? Eda hvoria Lijking vilied þier hønum giora?

19. Meistarenn steyper vel eina Mind, og Gullsmidurenn yfer-gyller hana, og giører þar Silfur-Kediu vid.

20. So lijka hvør hann (d) formegnar fatæklegt Upplyptingar-Offur sa utvelur sier þad Trie sem ecke funar, og sæker klokann Meistara þar til, sem giorer eitt Lijkneske, þad varanlegt sie.

(d) Formegnar) Þad er, Þeir Rijku hefa af Gulle, enn Fatæker af Trie, þeirra Afgude.

21. Vited, þier ecke? Heyred þier ecke? Var ydur þad ecke kunngiort fyrerframm? Hafed þier ecke skiled þad j fra Upphafe Jardarennar?

22. Hann situr upp yfer Jardarkringlunne, og þeir ed þar uppa bua eru sem (e) Eingespretter. Hann hvør ed ut þenur Himenenn sem annad þunnt Skinn, og breider hann ut sem adra Tialldbud, þar jnne bued er.

(e) (Eingesprettur) Hvoriar ed hæglega verda j burt elltar og reknar.

23. Hvør ed Hofdingiana giorer ad Øngvu, og þa Yferdomarana a Jordunne giorer ad Hiegoma.

24. So sem ad hefde þeirra Stofn hvørke Plantan nie Sæde, nie nockra Root j Jordunne, so ad þeir, nær ed Vindurenn blæs a mille þeirra, upp þorne, og eirn Hvirfel-Vindur þeim j burt feyke sem ødru Gras-Stroae.

25. Hvorium vilied þier þa eptermynda mig, þeim eg skyllde lijkur vera? Seger Sa hinn Heilage.

26. Upphefied ydar Augu j Hædernar, og sioaed, Hvør hefur soddan Hlute skapad, og utleider þeirra Her med Tolu? Hann sa sem þa alla kallar med Nafne. Hanns Moattur og oflugur Kraptur er so mikell, so þad kann ecke j einu Brestur ad vera.

27. Hvar fyrer seger þu þa Jacob, og talar so Israel? Minn Vegur er folgenn fyrer DRottne, og minn Doomur hann geingur framm hia Gude mijnum.

28. Veitstu ecke? Hefur þu ecke heyrt? Ad DROTTinn Sa Eylijfe GUD, sem Endemork Jardarinnar hefur skapad, hann verde hvørke þreyttur, nie modur, hans Skilningur er Oranñsakanlegur.

29. Hann giefur Þreyttum Krapt, og Stirkleik noogann þeim Vanmoattugu.

30. Hiner (f) Ungu verda mooder og moattlauser, og þeir Æsku-Mennerner falla.

(f) Þad Unga Mann-Folked, sem treyster uppa sinn eigenn Stirkleika og Ungdom.

31. Enn þeir sem vona uppa DRottinn þeir foa nyann Krapt, so ad þeir uppfliuge med Vængium sem Erner, so þeir hlaupe og verde ecke luner, so þeir gange og mædest ecke.

## XLI. Capitule.

Skurgod er ecke Par i Heimenum, og þar er Einginn Gud nema sa Eine, 1 Cor. 8, 4.

Laat Eyarnar fyrer mier þeigia, og Folked stirkia sig. Laat þa (a) koma hier fromm ad, og tala nu, Laatum oss eigast Log vid.

(a) (Koma) Þad er, Laated heyra hvad þeir kunna.

2. Hvor hefur hinn (b) Riettferduga af Austrenu uppvaked? Hvor kallade hann, þad hann geinge? Hvor gaf Heidnar Þioder, og Kongana fyrer honum, so ad hann vard þeim yfermaattugur, og gaf þa hans Sverde, lijka sem Dupt, og hans Boga sem burtfeykt Gras-Straa?

(b) (Riettferduga) Þad er, Abraham.

3. So þad hann veitte þeim Eptirfor, og foor þar j giegnum med Fride, og hann mædest alldrei a þeim Veige.

4. Hvor giorer þad? Og verkar þetta? Og kallar alla Menn, hvorn epter odrum j fra Upphafe? Eg er Sa DROTTinn, bæde hinn Firste og Sijdarste.

5. Þa ed Eyarnar saau þad hræddust þær, og Endemerkur Jardarennar skielfdust vid þad. Þeir nalægdu sig og komu hingad.

6. Eirn hiaalpade odrum, og sagde til sijns Naunga, Vertu Hughraustur.

7. Timbur-Madurenn took Gull-Smidenn til sijn, og giordu med Hamrenum Þiatred sliett a Stedianum, og sogdu, Þad skal fara vel, og þeir festu þad med Noglum, so ad þad sky de ecke skeika.

8. Enn þu Jsrael minn Þion! Jacob! þann eg hefe utvaled, Þu Sæded Abrahams mijns hins elskulega!

9. Eg sem þig hefe (c) stirkt allt fra Verralldarennar Endemorkum, og hefe kallad þig burt fra hennar (d) Volldugum, og sagde til þijn. Þu skallt minn Þion vera, þviad eg utvel þig, og forlegg þig ecke.

(c) (Stirkt) Þad er, Eg took þig, greip og hiellt, og hafde Hendur a þier.

(d) (Volldugum) Þad er, Fra Hofdingium Egyptalands.

10. Ottast ecke, Eg em medur þier, Vijktu ecke, þviad Eg em þinn GUD, Eg stirke þig, Eg hiaalpa þier eirnenn, Eg helld þier vid, fyrer þa Hægre Hondena mijns Riettlætis.

11. Sia þu! Þeir skulu til Haadungar og til Skammar verda, aller þeir sem þier eru reider, þeir skulu verda sem eckert, Og þeir Menn sem deila a mote þier skulu fyrerfarast.

12. So ad þu meiger spyria epter þeim, og muntu ecke þa finna. Þeir Menn sem þræta vid þig skulu verda sem ecke neitt. *Og þad Folk sem strijder vid þig skal hafa eirn Enda.

13. Þviad Eg em DROttinn GUD þinn, sem stirker þijna Hægre Hond, og til þijn seger, Ottast eige, Eg hiaalpa þier.

14. So vert * ei hræddur þu Madk-korned Jacob, þier Faatæker Hoopar Jsrael! Eg hiaalpa þier, seger DROTTinn, og þinn Frelsare, Sa Heilage j Jsrael. *Luc. 12, 32.

15. Sia þu! ad eg hefe giort þig ad hvossum nyum Þreske-Vagne, sem Agnua hefur, so ad þu skallt Fiollenn j sundur þreskia og j smaatt mala, og Hædernar giora sem Agner.

16. Þu skallt j sundur dreifa þeim, so ad Vindurenn blaase þeim j burt, og Hvirfel-Vindurenn feyke þeim hiedann. Enn þu munt gladvær vera j DROTTne, og munt hroosa þier af þeim Heilaga j Jsrael.

17. Þeir Faatæku og Voludu leita ad Vatne, og þar er ecke neitt, þeirra Tunga þornar upp af Þorsta. Enn Eg DRottinn vil bænheyra þa, Eg Gud Jsraels vil ecke yfergiefa þa.

18. Helldur vil Eg Vatns-Raaser opna a Hædum uppe, og Vatns-Brunna a midium Sliettlendenu. Eg mun giora Endemorkena ad Stodu-Votnum, og þad Þurra Landed ad Upp-sprettu Brunnum

19. Eg mun giefa j Obyggdenne Cedrus-Vid, Furu, Myrte, og Oliu-Trie, Eg mun giefa

giefa a Sliettlendenn Grenetrien, Beike-Videnn, og Busbom, hvort med odru-til samans.

20. So ad þeir sioe, og þecke, og merke, og skilie oasamt, ad Hond DROttins hafe þvilijkt giort, og Sa hinn Heilage j Jsrael hafe skapad slijkt.

21. So loated ydvar Moalefne hingad koma, seger DROTTenn, Hafed þad hingad hvar þier standed uppa, seger Sa Kongurenn j Jacob. Loated þa hier framm ganga, og kunngiora þad fyrer oss Hvad epterkomande er.

22. Kunngiored oss og spoaed eitthvad fyrer, Loated oss med vorum Hiortum hafa þar vakt uppa, og formerkia, hvornenn þad skal seirna meir til ganga.

23. Edur loated oss heyra hvad epterkomande er. Kunngiored oss þad hvad hier eptera koma mun, þa vilium vier formerkia þad, ad þier erud Guder. Trats, Giored annad hvort Gott, edur Skadseme, þa vilium vier segia þar ut af, og sioa þad til samans.

24. Sioaed, þier erud ut af ongvu, og ydar Giorningur er af ongvu, og ad (e) utvelia ydur er andstyggelegt..

(e) (Utvelia ydur) Þad er, Hvor sem helldur ut af ydur, og geingur vid ydar Frammferde, sa er Andstyggd.

25. Enn eg uppvek eirn ut af Nordrenu, og kiemur af Uppgongu Soolarennar, hann mun j mijnu Nafne predika, og hann mun ganga yfer hina (f) Volldugu, sem yfer annañ Jardar Leyr, og hañ mun nidur troda þañ Saurenn, lijka sem annar Leyrkiera Smidur.

(f) (Volldugu) Þa kallar hann hier Saganim, þad er þa hina Hærstu j Andlegre Stett, so sem þa Ædstu Kiennemenn, Levita, Biskupa, og Presta.

26. Hvor kann nockud ad kunngiora ut af Upphafenu, þa vilium vier skilia þad, edur spoa fyrer framm, þa vilium vier segia, Þu seger riett. Enn þar er sa eingenn ed kunngiore, eingenn sa sem nockud lætur heyra, eingenn sem kann ad heyra eitt Ord af ydur.

27. Eg em firstur sem til Zion seger, Sioa þu, þad sama er þad, og eg gief Jerusalem Predikara.

28. Enn eg lyt þangad, enn þar er eingenn, og sie a medal þeirra, enn þar er eingenn Roadgiafare. Eg adspyr þa, enn þeir andsvara þa ongvu.

29. Sioa þu, þad er allt samann ecke utann Armæda og ongvu neytt med þeirra Giorningum, þeirra Afguder eru Vindur og Hiegome.

## XLII. Capitule.

Esaias talar (I) um Ebling Christi Rijkes; og (II) um Forherding Gydinganna.

I. Sioa þu, þad er minn Þion. Eg helld honum vid, og * Minn Sa hinn Utvalde, a hvorium mijn Soala hefur Giedþeckne. Eg hefe honum minn Anda giefed, hann mun Doomenn utflytia medal Heidenna Þioda. * Matth. 3, 17. c. 17, 5.

2. Hann mun hvorke kalla nie hroopa, og hans Raust mun ecke heyrast a Strætunum.

3. Þann broakada Reyrenn mun hann ecke j sundur briota, og þann riukanda Lijnkveik mun hañ ecke utslockva. Hann mun kienna ad hallda Doomenn med Sannleiknum.

4. Hann mun ecke Moglunarsamur nie (a) hrædelegur vera, so ad hann a Jordu Riettenn uppbyrie, Og Eyarnar munu epter hans Logmoale vænta.

a) (Hrædelegur) Þad er, Mann skal ecke vera hardur edur beisklundadur og bystur, helldur Vingiarnlegur og Goodur.

5. So seger Gud DROTTinn, Sa ed Himenenn skapar og utbreider, sa ed Jordena giorer og hennar Avoxt, sa ed Folkenu, þvi sem þar er uppa, Andardroatt giefur, og Andann þeim sem þar uppa ganga.

6. Eg DROTTinn hefe kallad þig med Riettlæte, og hefe teked þig vid þijna Hond, og hefe bijvarad þig. Og hefe þig giefed til Soattmoala medal Folksins, til * Liossens Heidenna. * Luc. 2, 32. Gb: P: 13, 47.

7. So ad þu skallt opna Augunn Blindra, og Herteknа j burtleida ur Fangelsenu, og þa sem þar sitia j Mirkrunum, j burt ur Dyblissunne.

8. Eg DROTTinn, þad er mitt Nafn, og mijna Dijrd vil Eg ongvum odrum giefa, nie mitt Lof Afgudunum.

9. Sioa þu, hvad Epterkomanda er kunngiore Eg fyrer framm, og hid Nya giore Eg vitanlegt, aadur enn þad uppgeingur, þa læt Eg ydur þad heyra.

10. Synged DROttne Nyann Lofsǫng, hans Lofstyr er allt til Veralldarennar Enda. Þeir j Sioonum fara, og hvad þar er jnne, þær Eyarnar, og þeir sem þar jnne bua.

11. Kalled hoatt þier Eydemerkur! og Borgernar þar jnne, med Þorpunum, þar sem Kedar byr, þeir giefa af sier Fagnadar Hliood sem j Griot-Hellunum byggia, og kalla af Hædum Fiallanna.

12. Laated þa giefa DROttne Dijrdena, og hans Lof kunngiora j þeim Eyonum.

13. DROTTinn mun utfara sem ein Hetia, Hann mun Vandlæted uppvekia sem eirn Bardagamadur, hann mun glediast og fagna, Hann mun sijna Ovine yfer-vinna.

14. Eg þeige um Stund, og em hliodur, og aptra mier. Enn nu vil eg so hoatt hroopa sem su ed Barn fæder. Eg vil foreyda þeim og uppsvelgia þa alla.

15. Eg vil eyda Fioll og Hoalsa, og allt þeirra Gras upp þurka. Og vil Vatnsfǫllenn ad Eyum giora, og Stodu-Vǫtnenn upp þurka.

16. Enn þa hina Blindu vil eg leida a þeim Veige, sem þeir vita ecke af. Eg vil leida þa a þann Footstijgenn sem þeir þeckia ecke, Eg vil fyrer þeim Mirkrenn ad Liose giora, og þad jafna sem osliett er. Soddann vil Eg þeim giora, og ecke yfergiefa þa.

17. Enn þeir sem treysta uppa Gudena, og segia til þeirra steyptu Lijkneskianna, Þier erud vorer Guder! Þeir skulu aptur til Baka snua, og til Skammar verda.

18. Heyred þier hiner Dausu, og lyted hingad þier hiner Blindu, so ad þier sioaed!

19. Hvør er so blindur sem minn Þion? Og hvør er so daufur sem minn (b) Sendebode þann Eg sende? Hvør er so blindur sem sa hinn Fullkomne? Og so blindur sem Þion DROTTins?

(b) (Sendebode) Þad eru þeir Kiennemanna Hofdingiar, og þeir ed hǫfdu Embætted a medal Folksins, sem ǫdrum aatti ad kienna, enn eru hiner blindustu, so sem Christus vottar j Evangelio, um þad Sallt sem til einkis er orded, og þeir Lærdu eru opt rangsnuner.

20. Menn predika ad sǫnnu miked, enn þeir hallda þad ecke. Þeim er noog sagt, enn þeir vilia þad ecke heyra.

21. Þo vill DROTTinn þeim vel fyrer hans Riettlætis saker, uppa þad, ad hann kostulegt og miked giore Lǫgmaaled.

22. Þad sama er eitt rænt og rutlad Folk, þeir eru aller Fiǫtrum vafder j Holunum, og nidurbyrgder j Mirkvastofunne, þeir eru ad Herfange vordner, og þar er eingenn Frelsare, þeir eru rænter, og þar er eingenn sem seger, Giefed þad aptur.

23. Hvør er sa a medal ydar sem sier laate slijkt j Eyrum loda, sa ed Giætur þar ad giefe, og þvi hlyde, hvad hier epter mun koma?

24. Hvør hefur yfergiefed Jacob til Gripdeillda, og Jsrael þeim Raansmǫnnum? Hefur ecke DROTTinn giort þad, mooti hvorium ad vier hǫfum syndgast? Og þeir villdu ecke a hans Vegum ganga, og hlyddu ecke hans Lǫgmaale.

25. Þar fyrer hefur hann uthellt yfer þa Grimmd sinnar Reide, og eirnre Strijds-Magt, og hefur so uppbrennt þa allt um kring, enn þeir formerkia þad ecke, Og hefur kveikt Elld um þa, enn þeir leggia þad ecke uppa Hiartad.

## XLIII. Capitule.

Frelse og Vidhiaalp Tiuadra i allskonar Neyd og Harmkvælum.

Og

Og nu seger DROTTinn, Sa ed þig hefur skapad Jacob! og þig hefur giort Israel! Ottast þu ecke, þviad Eg hefe frelsad þig, Eg hefe kallad þig med þijnu Nafne, þu ert minn.

2. Þvi nær ed þu geingur j giegnum Votnenn mun Eg hioa þier vera, so ad Vatns-Follenn skulu ecke dreckia þier. Og ef þu geingur j Elldenn skalltu ecke brenna, og sa Elldslogenn skal ecke upp brenna þig.

3 Þviad Eg em DROTTinn Gud þinn, Sa hinn Heilage j Israel, þinn Hioalpare. Eg hefe Egyptaland, Morland (a) og Seba giefed j þinn Stad til Forlijkunar.

(a) Seba er Hofud-Stadur j Morlande.

4. Af þvi þu ert so dyrt virdtur j mijnu Auglite, so hlytur þu eirnenn Vegsamlegur ad vera, og Eg elska þig, þar fyrer gief Eg Menn j þinn Stad, og Pioodernar fyrer þijna (b) Saalu.

(b) (Saalu) Þad er, Eg læt onnur Lond eydast fyrer Kongenum af Assyria, uppa þad þu bevarest.

5. Þar fyrer þa (c) oottast þu nu ecke, þviad Eg em hioa þier, Eg vil af Austre þitt Sæde hier framm leida, og ur Vestre þier til samans safna.

(c) (Ottast) Su Christelega Kyrkia hrædest og fur dar sig þar uppa, ad þeir eru fæer sem trua, og þeir enu Ogudlegu eru marger.

6. Og Eg vil mote Nordrenu segia, Gief hier framm, og j moot Sudrenu, Hamla þu ecke. Laat hier framm koma mijna Sonu af Fiarlægdenne, og mijnar Dætur fra Veralldarennar Enda.

7. Alla þa sem med mijnu Nafne nefnder eru, sem er, Þa Eg hefe skapad til minnar Dijrdar, og þa tilreidt, og giort.

8. Laattu hier framm koma þad Blinda Folked, hvort ed þo hefur Augunn, og þa hinu Daufu, sem þo hafa Eyrunn.

9. Laatid alla Heidingia koma saman j Hoop, og Folkid samannsafnast. Hvor er þar a medal þeirra sem soddann kunne ad kunngiora, og laate oss þad heyra fyrer framm Hvad skie skal? Laated þa sijna Votta framm leida og sanna þad, þa munu Menn heyra þad, og segia, Þad er Sannleikur.

10. Enn þier erud mijner Vottar, seger DROTTinn, og minn Þion þann Eg utvaled hefe, so ad þier vited þad, og trued mier, og skilied þad, ad Eg sie þad. Fyrer mier er eingenn Gud giordur, so mun og eirnenn epter mig eingenn vera.

11. Eg, Eg em DROTTenn, og þar er Eingenn Hioalpare utan Eg.

12. Eg hefe kunngiort þad, og Eg hefe eirnenn hioalpad, og Eg hefe laated segia ydur þad, og þar er eingenn framande (Gud) a medal ydar. Þier erud mijner Vottar, seger DROTTinn, so em Eg Gud.

13. Og Eg em og eirnenn aadur enn þad nockur Dagur var til, og sa er eingenn sem ut af minne Hende kunne ad frelsa, Eg verka þad, Hvor vill hamla þvi?

14. Svo seger DROTTinn ydvar Frelsare, sa hinn Heilage j Israel, Ydar vegna þa hefe Eg sendt j Babylon, og hefe allar (d) Lokur nidur sleigid, og þa kveinande Chaldeos uti Skipenn jagad.

(d) (Lokur) Þad er, Eg hefe nidurlægt Hofdingiana, og hina Volldugu j Babylon, fyrer Kong Cyrum.

15. Eg em Sa DROTTinn ydar hinn Heilage, Eg sem Israel hefe skapad, ydar Kongur.

16. So seger DROTTinn, Sa ed j Sionum Veginn, og j straungum Votnum Brautena giorer.

17. Hann Sa ed hier utleider Vagna og Vijg-Hesta, Herlid og Magt, so ad þeir ligge j einum Hoop og stande ei upp, so ad þeir utslokne, lijka sem annar Lijnkveikur utsloknar.

18. Hugsed ecke a hid Gamla, og aktid ecke þad sem fyrr meir var. * Þvi sioaed, Eg vil giora nockud Nytt. * 2 Cor. 5, 17. Opb: B: 21, 5.

19. Nu skal Þad uppvaxa, so ad þier munud

munud þad reyna, ad Eg giore Vegu j Eydemorkenne, og Vatns-Strauma j Obyggdenne.

20. So ad mig prijse Villudyrenn a Morkunum, Drekarner og Strussfuglarner. Pviad Eg mun Vatnid j Eydemorkenne, og Vatns-Straumana j Obyggdenne giefa ad drecka mijnu Foolke, mijnum Utvoldum.

21. Þetta Folk hefe Eg tilreidt mier, þad skal mitt Lof framm-telia.

22. Eige so, ad þu hafer kallad mig Jacob! eda þad þu hafer vegna mijn erfidad Jsrael!

23. Mier hefur þu ad sonnu ecke fært þa Saudena þijns Brenne-Offurs, nie mig heidrad med þijnum Fornfæringum, Mig hefur ecke lyst til þinnar Þionustu j Matar-Offrenu, Eg hefe og eirnenn ongva Lysting a þijnu Erfide uti Reykelsis Veisunnne.

24. Þu hefur ecke keypt mier Kalmes fyrer Pening. Mig hefur þu ecke fyllt med Feite þijns Offurs, Joa, þu hefur giort mier Erfidesmune j þijnum Syndum, og hefur giort mier Mædu j þijnum Misgiordum.

25. Eg, Eg em hann sem afmoae þijnar Synder minna vegna, og minnest ecke þinna Synda.

26. Minntu mig oa, Loattu oss eigast Log vid, Seg þu framm Hvornenn þu villt Riettloatur vera?

27. Þijner Forfedur hafa syndgast, og þijner Læremeistarar hafa misgiort a mote Mier, þar fyrer þa hefe Eg saurgad þa Hofdingia Helgedomsins, og hefe Jacob ad Bolvan giort, og Jsrael ad Hoadungu.

## XLIV. Capitule.

Esajas talar (I) um Sending Heil: Anda; (II) um Svijvirding Skurgodanna; Og (III) um Fyrergefning Syndanna.

I. Svo heyr nu minn Þion Jacob! og Jsrael! þann Eg hefe utvaled.

2. Svo seger DROttinn, Sa ed þig hefur giort og tilreidt, og sa ed þier Hioastod veiter allt fra Modur-Kvide. Ottast þu ecke Minn Þion Jacob, og þu hinn agiætlige, hvorn Eg hefe utvaled!

3. Pviad Eg mun Votnum uthella yfer hina Þyrstu, og Vatns-Straumum yfer hina Þurru. * Eg vil uthella mijnum Anda yfer þitt Sæde, og minne Blessan yfer þijna Eyterkomendur.

* Joh. 7, 38, 39. Giørn: Postul: 2, 17.

4. So ad þeir skulu vaxa sem Gras, og so sem Vijder vid Vatns-Læke.

5. (a) Þesse mun segia. Eg em DROttins, og Hinn mun nefndur verda med þvi Nafnenu Jacob, og þesse mun med sinne Hende til-skrifa sig DROTTne, og mun medur þvi Nafnenu Jsrael nefndur verda.

(a) (Þesse, Hinn, Annar) Þad er, Hier og þar, og j ollum Stodum skulu Christner vera, eirnenn a mille Heidingianna.

II. 6. So seger DROttinn, Sa Kongurenn Jsraels, og hans Frelsare, DROTTenn Zebaoth, *Eg em Hinn Firste, og Eg em Hinn Sijdarste, og fyrer utann mig er eingenn GUd. * Opinnb: B: 1, 18. c: 22, 13.

7. Og hvor er mier lijkur? Eg sem kalla og kunngiore, og tilreide mier þad, Eg sem j fra Veralldarennar Upphafe innsette Folkid, Loated þa kunngiora þeim Taknenn, og hvad koma skal.

8. Ottist þier ecke, og hrædest ei, Hefe eg ecke j þad Sinn loated þig þad heyra og kunngiort þier þad? Pviad þier erud mijner Vottar, Hvort er þar nockur annar GUd utann Eg? Þar er eckert Athvarf, Eg veit þo ongvann Annann.

9. Þeir sem Skurgod smijda eru aller samt Hiegome, og þeirra hid Kostulegasta er til ongrar Nytsemdar. Þeir eru þeirra Vottar, og sioa ecke neitt, skilia og ecke neitt, Þar fyrer þa hlioota þeir til Skammar ad verda.

10. Hvorier eru þeir sem eirn Afgud giora, og steypa eitt Skurgod þad sem til einskis er neytt?

11. Sioa!

11. Sioa! Aller þeirra Hluttakendur verda til Skammar, þviad þad eru Hagleiks-Meistarar af Monnum til. Þo þeir kiæme aller til samans, þa hlyte þeir þo lijka vel otta-blandner ad vera um sig, og til Skammar ad verda.

12. Eirn smijdar Joarned med Tongenne, og vinnur þad j Gloodenne, og til reider þad med Hamrenum, og erfidar þar uppa med ollu Afle sijns Handleggs, þoler eirnenn Sveingd, þangad til hann orkar eige meir, dreckur og ecke Vatn, þangad til ad hann mædest.

13. Hinn Annar smijdar Tried, og mæler þad med Mæle-Prædenum, og teiknar þad med Raud-Steinenum, og hoggur þad um kring, og moatar þad af med Cirklenum, og giorer þad so sem adra Manns-Mind, so sem eirn fagrann Mann sem j Husenu byr.

14. Hann geingur diarft þar ad a medal Trioanna j Skogenum, þad hann Cedrus-Videnn nidur hoggve, og take Beyke-Vid og Eike-Trie, Joa, eitt plantad Cedrus-Trie, og þad sem af Regnenu er uppvaxid, og þad Monnum være til Ellde-Vidar.

15. Hvar af Menn taka þad hvad þeir verma sig vid, og þad Menn uppkveike, og bake þar Braud vid. Af þvi giorer hann eitt God, og tilbidur þad, hann giorer þar eirn Afgud ut af, og nidurkrypur þar fyrer.

16. Helmingenn þar fra uppbrenner hann j Ellde, og yfer odrum Helmingenum etur hann Kiot. Hann steiker Steik, og mettar sig, vermer sig eirnenn, og seger. Hei Joa! Eg em heitur vordenn, Og sie mijna Lysting a Elldenum.

17. Enn þad Annad, sem epter er, gierer hann ad Gude, so ad þad sie hans Afgud, þar ed hann hnie-krypur fyrer, og framfellur, og tilbidur, og seger, Frelsa þu mig, Þviad þu ert minn Gud!

18. Þeir vita ecke neitt, og skilia ecke neitt, Þviad þeir eru forblindader, so ad þeirra Augu sioa ecke, og þeirra Hiortu kunna ecke ad skilia.

19. Og þad geingur ecke j þeirra Hiarta, Þar er og eingenn Skinseme nie Vitsmuner fyrer Hondum, so ad þeir hugleiddu þad, Helmingenn þar fra hefe eg med Ellde upp brennt, og a Kolenu hefe eg Braud bakad, og Kiot steikt, og þad eted, og skyllde eg nu af þvi sem auk være, giora eina Svijvirding, og skyllde eg hnie-kriupa fyrer einum Trie-Drumb?

20. Hann fæder sig af Osku, hans Toaldregna Hiarta leider hann afvega; ad hann kann ecke sijna Soalu ad frelsa. Enn þo hugleider hann ecke ad þvi, Eru þad ecke Svik sem mijn Hægre Hond giorer?

III. 21. Minnstu þad Jacob og Jsrael! Þviad þu ert minn Þion, Eg hefe tilreidt þig, ad þu siert minn Þion, Jsrael! forgleymdu mier ecke.

22. Eg afmoae þijnar Misgiorder sem Annad Skij, og þijnar Synder sem Þoku. Snu þier til mijn, þviad Eg frelsa þig.

23. Lofsynged þier Himnar! Þviad Drottinn hefur (b) giort. Kalla hoatt þu Jord hier nidre! Þier Fiollenn! vered gladvær med Fognude, Skoogurinn og oll Trien þar inne, þviad DROTTinn hefur endurleyst Jacob, og er Dijrdarsamlegur j Jsrael.

(b) (Giort) Þar hann er einn giorande, enn ecke falskt talande fyrer utann Giorning, so sem Skurgodenn eru.

24. So seger DROTTinn þinn Endurlausnare, sa ed þig hefur tilreidt j fra Modur-Kvide, Eg em Sa DROttinn sem alla Hlute giorer, hvor ed Himenenn utbreider Alleina, Sa ed Jordena utvijdkar oan Til-Stirks.

25. Hvor ed Teiknenn Sannsagnaranna oonyter, og Spoasogu-Mennina ad Heimsku giorer. Sa ed Vitringunum snyr til baka, og þeirra Vijsdom ad Foavitsku giorer.

26. Enn stadfester Ordid sijns Þions, og fullkomnar (c) Roaded sinna Sendeboda. Sem til Jerusalem seger, Vertu byggd! og til Stadanna j Juda, vered byggder! og Eg upp riette þeirra Foreyding.

(c) (Roaded) Þad er, Predikun, med hvorre þeir roadleggia Folkenu.

27. Eg sem sege til Diupsins, Þverra þu, og til Vatns-Straumanna, Þurkist upp!

28. Eg sem sege til Cyrus, Sa er minn Hyrder, og hann skal fullkomna allann minn Vilia, so ad sagt verde til Jerusalem, Vertu uppbyggd! og til Musterisins, Þu skallt grunnvallast!

## XLV. Capitule.

Sigurvinning Cyri og þeim Babyloniska er heitenn fyrer framm, til Frelses Gydingum.

Svo seger DROTTinn til Cyrus sijns Hins Smurda, þann ad Eg tek vid hans Hægre Hond, so þad eg legge under hann Heidnar Pioder, og Konguunum Sverded af-leyse. So ad fyrer honum verde Dyrnar upploknar, og ad þau Borgarhlidenn blijfe ecke til luckt.

2. Eg mun ganga framme fyrer þier, og Hædernar sliettar giora, Eg mun Kopar-Hurdernar sundurslaa, og Jarn-Grindurnar sundur briota.

3. Og Eg mun giefa þier þa folgna Fiarsioduna, og þau nidur-byrgdu Clenodia. So ad þu viter, þad Eg DRottinn GUd Jsrael hafe þig kallad med þijnu Nafne.

4. Vegna Jacobs mijns Þions, og vegna Jsraels mijns hins Utvalda. Jaa, Eg kallade þig med þijnu Nafne, og uefnda þig þa ed þu þeckter mig enn ecke.

5. Eg em DROTTinn, og eingenn Annar, þar er og eingenn GUd utann Eg. Eg hefe þig utbryniad, þa ed þu þeckter mig enn ei.

6. So ad Menn vite, bæde j fra Uppgongu Soolarennar, og so j fra Nidurgongu Soolarennar, þad ann mijn sie ecke neitt, Eg em DROTTinn og eingenn Annar.

7. Eg sem giore Liooſed, og skicka Myrkrinn, Eg sem Fridenn gief, og skicka hid Vonda. Eg em DROTTinn sem allt þetta giorer.

8. Driuped þier Himnar hier ofann af, og Skijenn þau rigne Riettvijsenne, Jordinn luke sig upp, og fære Hialprædid, og Riettvijsenn vaxe þar upp med eirnenn, Eg DRottinn verka þad.

9. Vei þeim sem moglar j mote sijnum Skapara, sem er Skurned med odrum Leyrkierum, *Seger nockud Leyrid til sijns Leyrkiera Smids, Hvad giorer þu? Eige audsyner þu þijnar Hendur a þijnu Verke.

*Rom. 9, 20.

10. Vei þeim sem seger til Fodursins, Hvar fyrer hefur þu gieted mig? Og til Kvinnunnar, Hvar fyrer fædder þu?

11. So seger DROttinn, Sa hinn Heilage j Jsrael, og hans (a) Meistari. Spyried Mig ad Teiknum, vijsid mijnum Bornum, og (b) Verkum minna Handa til mijn.

(a) (Meistare) Þad er, Sa sem vel kann ad koma þeim til Heidurs aptur, so sem eirn Leyrpotta-Smidur, sem er Meistare og Herra yfer Leyrnum, kann ad giora af Leyrnum hvert Kier sem hann vill.

(b) (Verkum) Þad er, Ad þeir ecke af O-þolenmæde tilbidie annarlega Gude, þvi Eg vil vel segia þeim fyrer framm, Hvønær þeirra Eymd skal endast, þar fyrer skicked þier so, ad þeir hallist til mijn alleina, Eg giet og hefe alla reidu uppvakt þann sem skal hiaalpa þeim.

12. Eg hefe Jordena giort, og Manninn þar uppa skapad, Eg em hann Hvors Hendur ad Himenenn hafa utbreidt, og hefe ollum hans Herskara bodid.

13. Eg hefe hann uppvaked j Riettvijse, og alla hans Vegu vil Eg jafn-slietta giora. Hann skal mijna Borg uppbyggia, og mijna Hertekna lausa laata, eige fyrer Peninga, nie Fiegiafer, seger DROTTinn Zebaoth.

14. So seger DROTTinn, Sijslan Egyptskra, og Utveiger þeirra Morlendinganna, og so þad haavaxna Folked til Sebamun undergiefa sig þier, og þijner Eigennleger vera. Þeir munu þier epter filgia, j Fiotrum munu þeir ganga, og fyrer þier munu þeir nidur falla, og þig graatbæna. Þviad Gud er hiaa þier, og þar er annars eingenn Gud framar.

15. Sannarlegana þa ertu eirn foolgenn Gud, þu Gud Jsraels Lausnarenn!

16. Enn

16. Enn þeir Afguda-Giörendurner hliota aller til samans med Skomm og Smaan ad standa, og aller saman med Vanvirdu j burt ad ganga.

17. Enn Jsrael mun frelsast fyrer DROttinn, fyrer eina Eylijfa Endurlausn, og mun ei til Skammar, nie til Hæadungar verda um Alldur og Æfe.

18. Þviad so seger DROTTinn, Sa ed Himenenn hefur skapad, Sa Gud sem Jordena hefur tilreidt, og hana hefur giort og tilbued, og hefur ei giort hana þad hun skule toom vera, helldur hefur hann tilbued hana so þad Menn skulu þar uppa bua. Eg em DROttinn, og þar er Eingenn annar.

19. Eg hefe ei j (c) Leynum talad, j Mirkvum Stodum Jardarennar. Eg hefe ecke til Sædis Jacobs forgiefens sagt, Leited mijn, Þviad Eg em DROTTinn sem af Riettvijsenne tala, og kunngiöre þad hvad riett er.

(c) (Leynum) Þad er, Uti tomann Heimenn, edur þar sem ecke er Folk sem heyra kunne.

20. Loated safna sier samann, og koma hier framm til samans, þær Hetiur Heidingianna, sem ecke neitt vita, og slæda sier framm med Drumbum sinna Skurgoda, og græatbæna þann Gudinn sem ecke kann ad hiaalpa.

21. Kunngiored þad, og komed hier framm ad, og taked Road til samans. Hvor hefur laated segia þetta j fra fordum Tijdum, og þa þegar kunngiort þad sama? Hefe Eg DROTTinn ecke giort þad? Og þar er Eingenn annar Gud utann Eg, Eirn Riettlaatur Gud og Hiaalpare, og aan Mijn er þar eingenn.

22. Snuest til mijn, þa munud þier hiaalplegar verda, allar Endemerkur Jardarennar! þviad Eg em Gud og Eingenn annar.

23. Eg sver vid sialfann mig, og eitt Ord Riettlætesins utgeingur af mijnum Munne, þar skal þad vid blijfa, sem er. *Ad fyrer Mier skulu sig beygia oll Knie, og allar Tungur sveria, og segia. *Rom. 14, 11, Phil. 2, 10. 11.

24. J DROTTne hef eg Riettlæte og Styrkleik. Slijker munu og eirnenn til Hans koma. Enn þeir aller sem honum j moote standa hliota til Skammar ad verda.

25. Þviad j DROTTne mun Riettlætast allt þad Sæded j Jsrael, og hroosa sier af honum.

26. Bel er nidur beygdur, Nebo er nidur fallenn, þeirra Afguder eru Villu-Dyronum og Fienadenum ad Hlutskipte ordner, so ad þeir af þeirra Byrdar-Punga eru mædder.

27. Jaa, þeir hrasa og beygia sig aller samann, og kunna ecke þeim Byrdar-Punga af Stad ad koma, helldur hlytur þeirra Saala ad ganga j Faangelsed.

## XLVI. Capitule.

DROTTenn hefur vidlijka sem Ein Moder aledØnn fyrer Jsraels Folke.

Heyred Mier, þier af Huse Jacobs, og aller hiner Epterblifnu af Huse Jsraels, þier, hvoria Eg ber j mijnu Lijfe, og med hvoria Eg geing!

2. Jaa, Eg vil bera ydur allt til Elle-Daga, og þangad til þad þier grooer af Hærum verdid, Eg vil giora þad, Eg vil upphefia, og bera, og frelsa.

3. Epter hvorium minded þier? Og hvorium samlijked þier Mig þa? Vidur hvorn mæled þier Mig, þeim ad Eg skule lijkur vera?

4. Þeir hrista Gulled ur Pungenum, og vega þar ut Silfred med Vogenne, og gialldа Laun Gullsmidnum, þad hann giöre eirn Gud þar ut af, fyrer hvorium ad þeir hniekriupa og tilbidia.

5. Þeir taka hann uppa Axlernar, og bera hann, og setia hann a sinn Stall, þar stendur hann, og kiemst ecke j burt ur sijnum Stad, Kallar nockur til hans þa andsvarar hann ecke, og hiaalpar honum ei j burt ur sinne Anaud.

6. Minnest þo a þetta, og vered stadfaster, þier Yfertrodslu-Menn! ganged jnn j ydar Hiarta.

7. Hugsed um þad framm-farna fra gamallre Tijd, þviad Eg em Gud, enn eingenn annar, Sa Gud þess Lijke ad hvørge er.

8. Eg sem ꝍdur kunngiøre þad hvad hier eptera koma skal, og ꝍdur fyrre enn þad skier, og sege, Minn Asetningur stendur stødugur, og Eg giøre allt hvad mier vel þocknast.

9. Eg kalla eirn (a) Fugl ur Austrinu, og eirn Mann, sem minn Asetning mun giøra, ur Fiarlægu Lande, Hvad Eg sege þad læt Eg framm koma, Hvad eg hugsa þad giøre Eg eirnenn.

(a) (Fugl) Kong Cyrus kallar hann Fugl, þvi hann kiemur fliott sem fliugande være.

# XLVII. Capitule.

Babylonar Eydeleggaing vegna, hennar Grimmdar og Drambs, er utmꝍlud.

Heyred mier þier (a) Stolltþiartader, þier sem langt erud fra Riettlætenu!

(a) (Stollt-Hiartader) Þad eru þeir Babylonisku.

2. Eg hefe mitt Riettlæte j Nꝍnd sært, þad er ecke fiærre, og mitt Hiꝍlpræde þad dvelur ecke vid, þviad Eg vil til Zion Hiꝍlpræded giefa, og j Jsrael mijna Dijrd.

3. *Stijgdu nidur Jungfru, þu Dotturenn Babylon! Settu þig j Molldar-Dupt, Settu þig a Jordena. Þviad Dotturenn þeirra Chaldeara hefur øngvann Stool leingur, Menn munu ei leingur kalla þig, Þu hin Smꝍ-vapna og Kræselega.

* Niduirbrot Babylonar hvørt ed framm kom 200. ꝍrum seirna.

4. Tak þu Kvørnena og mala þu Misled, utgreidtu þijnar Hꝍrfliettur, lꝍt berann þinn Foot, afklæd þijna Skofnunga, vadtu Vatned, so ad þinn Leyndar-Limur j Liose lꝍtist, og þijn Smꝍn sienest.

5. Eg vil hefna mijn, og eingenn Madur skal þess fꝍ afbeded af mier.

6. (Soddann giører) vor Lausnare, hvør ed heiter DROTTinn Zebaoth, Sa hinn Heilage j Jsrael.

7. Settu þig j Kirrdena, Gack þu jnn j Mirkrenn þu Dotter þeirra Chaldeara! þviad þu skallt ei leingur kallast Fru yfer Kongarijkiunum.

8. Þviad þa ed Eg var reidur vidur mitt Folk, og Eg o-helgade mijna Arfleifd, yfergaf Eg þa j þijna Hond. Enn þu synder þeim øngva Miskunseme, og eirnenn yfer hina Gomlu giørder þu þitt Ok ofþungt.

9. Og hugsader, Eg em eirr Drottning Eylijflegana, Þu hefur hingad til enn nu ecke sett hier þad j Hiarta, og ecke hugsad epter þvi, hvørnenn þad skyllde med þeim hier eptera seirna meir verda.

10. So heyr nu þetta, þu sem j Sælgiæte lifer, og so Ugglanst situr, og seger j þijnu Hiarta, Eg em, og eingenn ønnur, Eg mun eingenn Eckia verda, nie Obyria verda.

11. Enn soddan mun Þier hvørtveggia brꝍdlega koma a einum Deige, þad þu siert bæde Eckia og Obyria, Jꝍ sullkomlegana munu þeir yfer þig koma, fyrer saker Fiølda þinna Galldra-Manna, og vegna þinna Særingar-Manna, þeirra ed mikell Flockur er hiꝍ þier.

12. Þviad þu hefur treyst uppa þijna Jllgyrne, þa ed þu hugsader, Menn siꝍ mig ecke. Þijn Speke og Kiænska hefur fyrerkomed þier, og þu seger j þijnu Hiarta, Eg em og eingenn ønnur.

13. Þar fyrer mun yfer þig koma eitt Ogiæfa, so þu veitst ei Hvønar hun brytst framm, og eitt Slis mun yfer þig falla, hvørt þu munt ecke kunna ad sætta, þviad þar mun skyndelega eitt Styriølld yfer þig koma, þar þu væntter ecke.

14. So gack nu framm med þijna Særingar-Menn, og med þann Flockenn þinna Galldra-Manna, medal hvørra ed þu hefur þiꝍad þig j fra Barnæsku þinne, hvørt þu kannt nockurt Rꝍd ad finna, hvørt þu kannt efla þig.

15. Þviad þu ert (b) þreytt af Fiøldanum þinna

þinna Raadagiorda. Laat hier framm koma og þier hiaalpa Meistarana Himen-Tungla-gangsins, og þa Stiornulistar-Mennena, sem epter Tunglkomunum reikna hvad yfer þig mun koma.

(b) (Þreytt) Pad er, So margar Raadagiørder giøra þig vinglada og veſæla, af hvorium eingenn er þo nytsamleg.

16. Siaa þu! þeir eru sem annad Haalmſtraa, þad Elldurenn upp brenner, þeir kunna ei sitt Lijf ad frelsa fyrer þeim Ellds-Loganum. Þviad þad mun ecke vera ein Ellds-Glood, þar ed Menn verma sig vid, edur eirn Elldur, er Menn meiga j kringum sitia.

17. So eru þeir þijner Hondlunar-Menn, a medal hvorra ed þu hefur Erfidismune hafst j fra Barnæsku þinne, hvor eirn þeirra mun sinn Veg hingad og þangad j burt raasa, Og þu hefur ongvann Hiaalpara.

## XLVIII. Capitule.

Gydingar komust i Eymd og Vesolld vegna þeirra Synda.

Heyred þad, þier af Huse Jacobs, þier sem heited ad Nafne Jsrael, og ut af Vatnenn Juda utrunner erud! Þier sem sveried vidur Nafned DROTTins, og minnest þess Guds j Jsrael, enn þo ecke j Sannleika, nie Riettlæte.

2. Þviad þeir nefna sig ut af þeirre Heilagre Borg, og treysta uppa Gud Jsraels, sem heiter DROTTinn Zebaoth.

3. Eg hefe aadur fyrre kunngiort þetta hid O-komna, ut af mijnum Munne er þad framm komed, og Eg hefe laated þad segia, Eg giore þad og eirnenn skyndelega, ad þad kome.

4. Þviad Eg veit, ad þu ert hardudigur, og þinn Hnacke er eirn Jaarn-Ædur, og þitt Enne af Kopar.

5. Eg hefe kunngiort þier þad fyrer framm, og Eg hefe laated segia þier þad aadur enn þad er komid, uppa þad, ad þu meiger ecke segia, Minn Afgud hann gierer þad, og mijn Lijkneskia og Skurgod hefur bodid þad.

6. Þetta allt heyrer þu og sier, og hefur þo ecke kunngiort þad, Þviad Eg hefe aadur fyrer framm nockud Nylegt laated þier segia, og þad hvad huled var, og þu visser ecke.

7. Nu er þad skickad, enn ei þa, og ecke einum Deige aadur hefur þu þar ut af heyrt, uppa þad þu kunner ei ad segia, Siaa þu, þad vissa eg vel.

8. Þviad þu * heyrder þad ecke, og visser þad eirnenn ei, og þitt Eyra var j þad Sinn ecke upploked. Enn eg vissa vel, ad þu munder fyrerlijta þad, og ert kalladur eirn Yfertrodslu Madur j fra Modur-Lijfe.

* Athuga hier; Þad er ad vanhelga Gud, þegar Mann hroosar sier af sijnum eigenn Giørningum og Forþienustu.

9. Af þvi em Eg fyrer mijns Nafns saker þolinnmodur, og fyrer Saker minnar Hroosunar vil Eg umlijda þad til gooda vid þig, so ad þu verder ei afmaadur.

10. Siaa þu! Eg vil hreinsa þig, enn ei sem Silfur, helldur vil Eg giora þig utvaldann j Ofne Foatæktarennar.

11. Minna Vegna, Jaa, fyrer mijnar Saker mun eg giora þad, so ad Eg verde ecke lastadur, þviad mijna Dijrd vil Eg ongvum odrum giefa.

12. Heyr þu mig Jacob! og þu Jsrael, minn hinn kallade! Eg em hann, Eg em hinn Firste, þar med og hinn Sijdarste.

13. Mijn Hond hefur Jardrijked grundvallad, og mijn Hægre Hond hefur Himenenn umspannad, Hvad Eg kalla þad stendur allt þar.

14. Samannsafnid ydur aller og heyred! Hvor er þar a medal þessara, sem þetta kann ad kunngiora? DROTTinn elskar hann, þar fyrer mun hann og audsyna hans Vilia vidur Babylon, og hans Armlegg vidur þa Chaldeos.

15. Eg, Jaa Eg hefe sagt þad, Eg hefe kallad hann, Eg mun hann og eirnenn koma laata, og hans Vegur skal honum vel luckast.

16. Ganged hingad til Mijn og heyrid þetta, Eg hefe ecke j Leyndum þad aadur fyrer framm talad, sijdann þad var talad var eg þar. Og nu

nu sender DROTTinn DROTTinn mig og * sinn Anda. * Hans Ande.

17. So seger DROTTenn þinn Lausnare, Sa hinn Heilage j Israel, Eg em DROTtinn GUd þinn, hvor ed þier kienner þad hvad nytsamlegt er, og leider þig uppa þann Veigenn sem þu geingur.

18. Eg sæe giarnann, ad þu giætter ad mijnum Bodordum, þa munde þinn Fridur vera sem Vatns-Straumur, og þitt Riettlæte sem Bylgiur Sioafarins.

19. Og þitt Sæde munde vera sem Sandur, og Avoxturenn þijns Kvidar so sem Smaa-Steinar Sandsins, hvors Nafn ad ecke mun afmaad nie afskafed verda fyrer mier.

20. * Ganged ut af Babylon, flyed j burt fra þeim Chaldeis med Gledinnar Hliom, kunngiored þad, og laated heyra soddann, flytied þad ut, allt til Veralldarennar Enda. Seged, Pad DROttinn hafe frelsad Jacob sinn Pienara. * Giorn: B: 18, 4.

21. Peir hofdu ongvann Porsta, þa hann leidde þa j Eydemorkenne, hann liet þeim Vatned ur Hellusteinenum frammfliota, hann j sundur klauf þad Hellubiarged, so ad þar spratt framm Vatn.

22. Enn hiner Ogudlegu (seger DROTTinn) hafa ongvann Frid.

## XLIX. Capitule.

Evangelium af Christo bodast bæde Gydingum og og Heidingium.

Texte so sem Pistill a Jons Messu.

Heyred Mier þier Eyarnar, og þier Folked sem j Fiarska erud hygged ad! DROttenn hefur Mig kallad j fra Modur-Lijfe, hann hefur minnst Mijns Nafns þa ed eg var enn j Modur-Lijfe,

2. Og hann hefur minn Munn giort sem eitt hvaßt Sverd, med Skugganum sinnar Handar hefur hann huled mig. Hann hefur giort mig ad (a) hreinne Pijlu, og laated mig j sitt Pijlna Koffur.

(a) (Hreinne) Sem er fægur, sliett, og tilbuenn til Skots.

3. Og seger til mijn, Pu ert Minn Pion Israel! fyrer Hvorn ad Eg vil prijsadur verda.

4. Enn eg hugsade, Eg erfidade forgiefens, og fyrerkiæme mijnum Stirkleika fyrer Ecke, og til Onytis, þo ad mitt Maalefne sie DROTTins, og mitt Embætte mijns Guds.

5. Og nu seger DROttinn, Sa ed Mig j fra Modur-Lijfe hefur tilbued til sijns Pions, þad Eg skule snua Jacob til hans, so þad Israel verde ecke j burt tekenn. Þar fyrer em Eg Vegsamlegur fyrer DROTTne, og minn GUd er minn Stirkleike, Og seger.

6. Pad er lijted ad þu ert minn Pion, til ad upprietta þær Kinkvijslernar Jacobs, og þad hid bivarada af Israel aptur ad hafa, * helldur hefe Eg og so giort Pig til Liossins Heidingianna, so ad Pu siert mitt Hialpræde allt til Veralldarennar Endemarka.]

* Luc: 2, 32. Giorn: B: Post: 13, 47.

7. So seger DROTTenn Endurlausnarenn Israels, hans Heilage, til Fyrer-lytinna Saalna, til Folksins sem Menn hafa Andstyggd a, til þess Pionsins sem a medal Tyrannanna er. Kongarner skulu sia þad og uppstanda, og Hofdingiarner skulu tilbidia vegna DROTTins, sem Trulyndur er, vegna þess hins Heilaga j Israel, sem þig hefur utvaled.

8. So seger DROttenn, * A Naadarennar Tijma heyrda Eg þig, og a Deige Hialpræðesins hialpade Eg þier, og vardveitte þig, og sette þig til Saattmaala medal Folksins, so ad þu uppriertter Landed, og ad þier taker þa eyddu Arfleifdena.

* 2 Cor. 6, 2.

9. Til ad segia þeim Herteknu: Farid ut hiedann, og til þeirra j Myrkrunum, Komid hier framm, So ad þeir faae sier Fædu a Veigenum, og hafe sijna Fæzslu a ollum Hædum.

10. * Pa mun hvorke hungra nie þyrsta, þa mun eingenn Hite nie Sool brenna. Pvi ad

ad þeirra Miskunare mun þeim Leid segia, og mun leida þa til Vatnsbrunnanna.

*Opinub: B: 7, 16.

11. Eg mun oll mijn Fioll ad Vegum giora, og mijner Fot-Stijger skulu Piodbrauter vera.

12. Sioa þu! Þesser munu af Fiarlægd koma, og Sioa þu! Hiner af Nordrenu, og Þesser fra Sionum, og Hiner af Landenu (b) Sinim.

(b) (Sinim) A Sinai, ufaf Buskum og Ville-dyr-num.

13. Giefed Fagnadar-Hlioom þier Himnar, Gled þig Jord, þier Fiollenn Lofed med Fagnadar-Hlioni! Þviad DROTTenn hefur Huggan veitt sijnu Folke, og Miskunad sijnum Voatækum.

14. Enn Zion seger, DROttenn hefur yfergiefed mig, DROttenn hann hefur forgleymt mier.

15. Hvort kann Konann nockud ad forgleyma sijnu Barne, so ad hun sioae ecke aumur a Syne sijns Kvidar? Og þo ad hun forgleyme þvi sama, þa vil eg þo ecke þier forgleyma.

16. Sioa þu! j Hondunum hefe Eg teiknad þig, þijner Murvegger eru jafnann fyrer mier.

17. Þijner Uppbyggendur munu flyta sier, Enn þijner Nidurbrioteudur og Foreydslu-Menn munu taka sig þar j fra.

18. Upphef þu þijn Augu um kring, og sioa þu! Aller þesser koma samansafnader til þijn, So sannarlega sem Eg life, seger DROttenn, þa skalltu med ollum þessum, lijka sem med Annare Pryde klædd verda, og þu munt leggia þa um kring þig, sem adra Brude.

19. Þviad þitt hid foreydda, j sundur dreyfda, og þad nidur-brotna Land mun þier þa ofþraungt verda, til ad byggia þar inne. Þa nær ed þijner Fordiorfunar-Menn þeir koma langt j burt fra þier.

20. So þad Born þijns (c) Obyriuskapar munu enn framar segia fyrer þijnum Eyrum, Sa Stadurenn er mier ofþraungur, Far þu j burt betur, so ad eg meige hioa þier bua.

(c) (Obyriuskapar) Bornenn sem hun aa, first hun er Obyria, þad er eitt forlaated Folk, og þo margfallt, so sem þeir enu Christnu eru.

21. Enn þu munt segia j þijnu Hiarta, Hvor hefur fædt mier þessa? Eg er Ofriossom, Einmana, Fordiorfud og Utrymd, Og hvor hefur uppfædt mier þessa? Sioa þu! Eg var laatenn einsomul, Hvar voru þa þesser?

22. So seger DROTTenn DROTTenn, Sioa þu! Eg mun upphefia mijna Hond til Heidingianna, og til Folksins mijnu Merke utfleygia, þa munu þeir þijna Sonu a Armleggium hingad hafa, og þijnar Dætur a Herdunum hingad bera.

23. Og Kongarner skulu þijner Fostur-Fedur, og þeirra Drottningar þijnar Fostur-Mædur vera. Þeir munu fyrer þier framm-falla til Jardar a Asioonuna, og sleikia dupted þinna Foota, Þa muntu þad reyna ad Eg em DROTTinn, a hvorium þad ecke til Skammar verda þeir sem uppa mig vona.

24. Hvort kunna Menn Herfanged ad taka af einum Risa? Edur kunna Menn nockud þess (d) Riettferduga Bandingia ad leysa.

(d) (Riettferduga) Logmaaled og Syndenn hafde oss under sier med ollum Riette og Magt, þvi hlaut Christus ad vinna oss aptur med Riette.

25. Þviad so seger DROTTinn, Nu skulu þeir fongudu fra Risanum tekner verda, og þad Herfanged hins Ofluga laust verda. Og Eg vil þraatta vid þa sem vid þig þraatta, og þijnum Bornum hiaalpa.

26. Og Eg vil þijna (e) Aþioanadar Menn mata med þeirra eigenn Hollde, og þeir skulu af sijnu eigenn Blode, lijka sem af odru sætu Vijne, druckner verda. Og allt Holld skal formerkia, Þad Eg em Sa DROTTinn, þinn Hiaalpare, og þinn Lausnare, Sa hinn Megtuge j Jacob.

(e) (Aþioanadar-Menn) Þeir Tyrannar yfer Samvitskunum, sem Logmaalenu og Verkunum framm hallda.

## L. Capitule.

Gydingar voru med sinne Ohlydne sialfer Orsok sinnar Olucku.

So seger DROTTinn, Hvar er þad Skilnadar Brefid ydrar Modur, þar ed Eg yfer-gaf hana med? Edur hvor er minn Okurs Mann, þeim ed Eg hefe sellt ydur? Sioaed! Þier erud fyrer ydra Synda Saker j burt sellder, og ydvar Moder er fyrer ydvara Misgiorda Saker yfergiefenn.

2. Hvar fyrer kom Eg, og þar var Eingenn? Eg kallade, og eingenn svarade? Hvort er mijn Hond nu so stutt ordenn, þad hun kann ecke ad frelsa? Eda hvort er þar eingenn Kraptur hioa mier til ad frelsa? Sioaed, med minne Avijtan uppþurka Eg Sioafar-Hafed, og giore Vatnsflodenn sem adra Eydemork, so ad þeirra Fiskar af Þrote Vatnsins uldna, og deya af Þorsta.

3. Eg klæde Himenenn med Mirkrenu, og giore hans Skyling sem annann Seck.

4. DROTTinn DRottenn hefur giefed mier vel (a) lærda Tungu, so þad Eg vite j riettann Tijma ad tala vid þa sem Mædder eru. Hann uppvekur mig alla Morgna, hann vekur mitt Eyra, so þad Eg heyre sem Annar Lærefveirn.

(a) (Lærda) Þa ed ecke dicktar af sialfre sier, helldur kienner þad sem GUd hefur kient henne, hun er ecke Meistare, helldur Læresveirn.

5. DROTTenn DRottenn hefur opnad mitt Eyra, og Eg em ei Ohlydugur, og geing ecke til baka aptur.

6. Eg hiellt mijnu Bake til þeirra sem mig sloou, og mijna Kinnvanga ad þeim sem mig reyttu, * Mijna Asionu byrgda Eg ecke fyrer Forsmoan og Hroakum.

* Matth: 26, 67, 68.

7. Þviad DROTTinn DRottinn hioalpar mier, þar fyrer verd Eg ecke til Skammar. Af þvi hefe Eg mijna Asionu framboded, sem annann hardann Stein, þviad Eg veit, ad Eg verd ecke til Skammar.

8. Hann er nærre sem mig Riettloatann seger, Hvor vill þrætta vid mig? Læatum oss ganga til samans, Hvor er sa ed hefur Riett til mijn? sa kome hier til mijn.

9. Sioa þu! DROTTenn DRottenn hioalpar mier, Hvor er sa ed mig vill fordæma? Sioa þu, Þeir munu aller saman fyrnast upp sem annad Klæde, Molurenn mun upp-jeta þa.

10. Hvor er þar a medal ydar sa ed ottast DROTTenn, hann sem hlyder Raustenne *þijns Þienara? Sa j Mirkrunum geingur, og lyser honum ecke, Vone sa uppa Nafn DROTTIns, og treyste uppa sinn GUd.

Sioaed, Þier aller sem Elldenn uppkveiked, med Loganum utbuner (b) ganged j Lioosenu ydvars Ellds, og j þeim Loganum sem þier hafid uppkveikt, Soddann skiedur ydur af mijne Hende, j Harmkvælum munud þier liggia.

* hans

(b) (Ganged) Tortijnest j þeirre Olucku sem þier tilbued mier.

## LI. Capitule.

(I) Tru, (II) Von, og (III) Þolenmæde Guds Kyrkiu, er her u-mtalud.

1. Heyred mier þier sem stunded epter Riettlætenu, þier sem leited DROTTins! Lyted a þad Hellubiarged sem þier erud af hoggner, og a Grofena þess Brunnsins sem þier erud ut af grafner.

2. Alyted Abraham ydvarn Fodur, og Sara, af hvorre þier erud fædder. Þviad Eg kallade hann, þa ed hann var enn eirn samann, og Blessade hann, og jook hann.

3. Þviad DROTTinn hughreyster Zion, hann hughreyster allar hennar Obyggder, og hennar Obyggder giorer hann so sem Lyste-Garda, og hennar Sliettlende sem Jurtra-Gard DROTTins, so ad þar inne finnst denn verde Glede og Fognudur, Þackargiord og Lofsongur.

4. Hygged ad mier, Mitt Folk! Heyred mier Mijner Menn! Þviad ut af mier mun eitt Logmaal ganga, og minn Riett vil Eg miog snart setia Lydnum til Lioss.

5. Þviad mitt Riettlæte er nærre, Mitt Hioalpræde þad fer ut, og mijner Armlegger munu

munu Folked dæma. Eyarnar vona uppa mig, og hafa Vakt a mijnum Armlegg.

6. Upphefied ydar Augu til Himens, og sioaed nidur a Jordena, þviad Himenenn mun sem Reykur forganga, og Jordenn sem annad Klæde fyrnast, og þeir sem þar a bua munu j burt deya, so sem þad (a) Tarna. Enn mit Hioalpræde blijfur eylijflega, og mitt Riettlæte mun ecke audvirdast.

(a) (Þad Tarna) Þad skal Madur syna med Fingrenum, so sem ef eirn spreiter Fingrenum, og segde, Eg akta þa ecke meira enn þad Tarna.

7. Heyred mier þier sem Riettlæted þecked, þu Folked! j hvorra Hiortum ad mitt Logmaal er. * Ottist ecke, nær ed Menn vanvirda ydur, og hrædist ecke, þo ad þeir giore ydur esasama. * Matth. 5, 11.

8. Þviad Molurenu mun eta þa sem annad Klæde, og Madkarner munu upp-eta þa sem adra Ull-Þurku. Enn mitt Riettlæte blijfur eylijflega, og mitt Hioalpræde um Alldur og Æfe.

II. 9. Hef þig upp! Hef þig upp! Jklædstu Stirkleikanum Þu Armlegur DROTTins! Hef þig upp! so sem fordum Daga og j Fyrndinne. Ertu ecke sa sem afhioost hina (b) Dramblaatu, og særder þann Drekann?

(b) (Dramblaatu) Þeir Egyptsku, og Drekenn, þad er Kong Pharao.

10. Ertu ei sa sem Sioafar-Hafid þeirra miklu Diupu Vatnanna uppþurkader? og sa sem Grunned Sioafarins giorder ad Veige, so þad hiner frelsudu geingu þar j giegnum?

11. Lijka so munu þeir endurleystu DROttins aptur snua, og til Zion koma medur Hroosan, og eylijfur Fognudur mun a þeirra Hofdum vera, Glede og Unadsemd munu þeir hondla, Enn Sorg og Andvarpan mun j burt fra þeim flya.

12. Eg, Eg er ydar Hugsvalare, Hvor ertu þa, ad þu hrædist fyrer Monnonum, þeir ed þo deya? og fyrer Mannanna Bornum, sem fortærast lijka sem annad Hey?

13. Og forgleymer DROTTne þeim sem þig hefur giort, Hvor ed Himenenn utbreider, og Jordena grundvallar. Enn þu ert hræddur um þig Dagl ega allann Dagenn, fyrer Grimmdar-Reide þess Fordiorfunar (c) Tyranna, nær ed hann aasetur sier ad fordiarfa, Hvad vard af þeirre Grimmdenne þess fordiorfunarsama Tyrannans?

(c) (Tyranna) Þad er Pharaonis.

14. Þa ed hann hlaut ad flyta sier, og um kring ad hlaupa, so ad hann giæfe lausa, og ad (d) þeir dæe ei nidur under þeirre Fordiorfuninne, hofdu og eirnenn ongvann Brest a Braudenu.

(d) (Þeir) Þad eru Israels Born.

15. Þviad Eg em DROttinn þinn Gud, sem hrærer Hafid, so ad þess Bylgiur uppþiota, hans Nafn heiter DROTTinn Zebaoth.

16. Eg legg mitt Ord j þinn Munn, og skyle þier under Skugga minna Handa, uppa þad eg grooduhrsetie Himenenn, og grundvalle Jordena, og sege til Zion, Þu ert mitt Foolk.

III. 17. Vakna þu! Vakna þu! Statt upp Jerusalem! þu sem af Hende DROttins Kaleikenn hans Grimmdar-Reide hefur drucked. Dreggina þess Hrosunar Kaleiksins þa hefur þu utdrucked, og sleikt Dropana.

18. Þar var ei neirn af ollum Bornum sem hun hafde fædt, þad hana leidde, ecke neitt af ollum þeim Bornum sem hun hefur uppaled, sem tæke j hennar Hond.

19. Þetta tvennt hefur þig skied, Hvor bar Harm medur þier? Þar var Foreydsla, Skade, Hungur og Sverd, Hvor skyllde hugsvala þier?

20. Þijn Born voru vanmegnud, þau laau a ollum Strætum, lijka sem annar fiotradur Skoogar-Ure, full af Reide fra DROTTne, og ut af Straffe þijns Guds.

21. Þar fyrer heyr þu þetta, þu hin Faatæka, og hin Fordruckna aan Vijns!

22. So seger þinn Yfer-Drottnare, DROttenn og þinn Gud, sem hefner sijns Folks,

Folks, Sioa þu, Eg tek þinn Hrosunar Kaleik j burt af þinne Hende, og samt med þeirre Dregginne þess Kaleiksins minnar Grimdar-Reide.

23. Þu skallt ecke leingur drecka þann hinn sama, helldur mun Eg giefa hann j Hond þinna Ploagunar-Manna, þeir ed sögdu til þinnar Soalar, Beyg þig nidur, so ad vier kunnum ad ganga þar yfer, og legg þinn Hrigg a Jordena nidur, og so sem eina Gotu, þad Menn hlaupe þar yfer.

## LII. Capitule.

Farsæld Guds Kyrkiu i Nya Testamentenu fyrer Trulynda Kennefedur.

Tak þig upp, Tak þig upp, Zion! Jklæd þig þijnum Stirkleika. Pryd þu þig vegsamlega, þu Heilaga Borg Jerusalem! Þviad þar mun nu hiedann j fra eingenn Oumskorenn edur O-hreinn rijkia j þier.

2. Haf þig j burt ur Molldarduptinu, Statt upp, Þu hin Hertekna Jerusalem! Leystu þig burt ur þijnum Hoalsbondum, Þu hin Hertekna Dotturenn Zion!

3. Þviad so seger DROTTinn, Þier erud fyrer ecke neitt j burt sellder, þier skulud og eirnenn oan Peninga endurleyster verda.

4. Þviad so seger DROttenn DROttenn, Mitt Folk foor j firstu ofann j Egyptaland, so ad þad være þar eirn Giestur, og Assur giorde þvi Ofrijke fyrer utan Sok.

5. Enn hvornenn verdur mier nu hier giort? Seger DROTTinn. Mitt Folk er burt fært fyrer eckert, þeirra Yfer-Drottnarar giora ecke utan (a) Kveinan, seger DROTtenn, og * mitt Nafn verdur jafnann daglega lastad. * Rom. 2, 24.

(a) (Kveinan) Þeirra Lærdomur er Harmur, og giorer Samvitskuna þunga og Harmande, med Logmoalenu.

6. Þar fyrer skal mitt Folk þeckia mitt Nafn, a þeim sama Tijma, þviad Sioa þu, Sioalfur vil Eg tala.

7. * Hvorsu elskuleger eru a Fiollunum Fæturner þeirra Sendebodanna, sem Fridenn kunngiora, Gott predika, Hioalpræded boda, þeir sem til Zion segia, Þinn Gud er Kongur! * Rom. 10, 15.

8. Þijner Vokumenn kalla hoatt med sinne Roddu, og glediast til samans, þviad Menn munu þad med Augum sioa, þa ed DROTTinn umvender Zion.

9. Fagned og gledjest aller til samans, þier sem erud j þeirre eyddu Jerusalem, þviad DROTTenn hefur huggad sitt Folk, og endurleyst Jerusalem.

10. DROTTenn hefur auglyst sinn Heilagann Armleag fyrer Augum allra Heidingia, so þad oll Endemork Veralldarennar skulu sioa þad Hioalpræded Vors Guds.

11. * Vijked fra, Vijked fra, Fared j burt þadann, og oahræred ecke neitt saurugt, Ganged ut af Henne, hreinsid ydur, þier sem bered Kierenn DROTTins! * 2 Cor. 6, 17.

12. Þvi þier skulud ecke med (b) Flyte ut fara, nie med Floottaferdast, þviad DROttenn mun ganga framme fyrer ydur, og Gud Jsraels mun samann safna ydur.

(b) (Flyte) So sem þeir med Flyte utforu af Egyptalande.

## LIII. Capitule.

Esaias talar um Fæding, Kvol, Dauda, og Upprisu JEsu, til Blessunar Trundum.

Sioa þu! Minn Þion mun forsioalega breyta, og hann mun upphefiast, og miog hoatt upphafenn verda.

2. So þad marger munu hneixlast a Þier, af þvi, ad Hans Yferlitur er vidurstyggelegre helldur enn annara Manna, og Hans oasynd helldur enn Mannanna Barna.

3. Enn Hann mun a þennann Hoatt oadreifa marga Heidingia, so þad eirnenn Kongarner munu sijnum Munne samann halda j moote honum. Þviad þeim sem * ecke er þar af kunngiort, þeir somu munu sioa þad med

med Fagnade, og þeir sem þär hafa ecke neitt ut af heyrt, þeir munu merkia það.

* Rom. 15, 21.

4. Enn * hvor truer vorre Predikan? Og hvorium verdur Armleggur DROTTins opinberadur? * Joh. 12, 38. Rom. 10, 16.

5. Þviad hann sprettur upp fyrer honum lijka sem eirn Kvistur, og so sem onnur Root ur þurre Jordu. Hann hefur ongvann Yferlit nie Fegurd. Vier saaum hann, enn þar var eckert oalit sem oß þocknadest.

6. * Hann var sa hinn allra Fyrerlitnaste og hinn Forsmaanarlegaste, fullur Pijnu og Krankleika, So var hann forsmaadur ad Menn byrgdu sijna Asionu fyrer honum, þar fyrer oktudum vier hann einskis. * Marc. 9, 12.

7. * Sannarlega þa bar hann vort Krankdæme, og vorum Pijnum hlood hann uppa sig. Enn vier hielldum hann fyrer þann sem Ploagadur var, og af Gude være sleigenn og pijndur. * Matth. 8, 17.

8. * Enn fyrer vorra Misgiorda saker er hann Særdur, og fyrer vorra Synda saker er hann Lemstradur. Hegningenn hun liggur a honum, uppa það vier hefdum Fridenn, og fyrer hans Beniar erum vier Heilbrigder vordner. * Rom. 4, 25. 1 Cor. 15, 3. 1 Pet. 2, 24.

9. Vier geingum aller villt sem Sauder, hvor horfde uppa sinn Veg, enn * DRottenn kastade ollum vorum Syndum uppa hann. * 2 Cor: 5, 21.

10. * Pa hann var straffadur og pijndur, lauk hann ei sijnum Munne upp, lijka sem Lamb það til Draaps er leidt, og so sem sa Saudur er þeiger fyrer þeim ed hann klipper, og upp lykur ei sijnum Munne.
* Matth 26, 63. Giorn: B: Post: 8, 32.

11. Enn fra Angistenne og Domenum er hann j burt numenn, Hvor vill Leingd hans Lijfdaga ut segia? Þviad hann er af Lande Lifande Manna burt slitenn, þa ed hann fyrer Misgiorda saker mijns Folks ploagadur var.

12. Og hann er greftradur lijka sem þeir Ogudlegu, og dœenn eins lijka og hinn (a) Rijke, * þo hann hefde ongvum Oriett til giort, og það eingenn Svik være j hans Munne. * Joh. 8, 46. 1 Pet. 2, 22. 1 Joh. 3, 5.

(a) (Rijke) Sa ed setur sijn Maalefne a Rijkedæme, sa er Ogudlegur.

13. Enn DROTTinn villde so kremia hann nidur medur Krankdæme. Pegar hann hefur nu sitt Lijf til Synda-Offurs utgiefed, þa mun hann Sæde hafa, og all-leinge Lifa. Og DROttens (b) Aform mun fyrer hans Hond framm ganga.

(b) (Aform) Það er, Hans Vilie og Verk, sem hann hefur j Sinne, sem er Mannkinsins Endurlausn.

14. Þar fyrer, ad hans Saala hefur Erfide drijgt, mun hann sijna Lysting sioa, og Nægd hafa. Og fyrer sijna Pecking, mun hann, Minn Pion, Sa hinn Riettlaate, marga Riettlaata giora, þviad hann ber þeirra Synder.

15. Þar fyrer vil Eg honum mikenn Fiolda til Bytis giefa, og hann skal faa þa Öflugu til Herfaangs, þar fyrer, ad hann hefur sitt Lijf j Daudann utgiefed, og er * lijka sem Spillvirke reiknadur, og hefur bored margra Synder, og hefur fyrer Yfertrodslu-Monnunum beded. * Marc. 15, 28. Luc. 23, 33.

## LIV. Capitule.

Ad Guds Kyrkia ætte ad eblast fyrer Bodan Evangelii a Dogum þeß Nya Testamentes.

Vert * glod þu hin Obyria! sem ecke fæder, gled þig med Fagnade og vert glod, þu sem ecke ert Oliett. Þviad hin Einsamla hefur fleyre Born enn hun sem Mannenn hefur, seger DROttinn. * Gal. 4, 27.

2. Vijdka þu ut Rumed þinnar Tialldbudar, og utþen Tiolldenn þijns Bustadar, Spara þu þau ecke, teyg þijn Reyp langt ut, og keyr þijna Nagla fast.

3. Þviad þu munt þig utbriota til Hægre og Vinstre Handar, og þitt Sæde mun

erfa Heidnar Þiodir, og j þeim foreyddum Stødunum bua.

4. Ottast ecke, þviad þu skallt ecke til Skammar verda, vert eige bliug, þviad þu skallt ecke ad Spotte verda, helldur þa muntu þeirre Vanvirdunne þijns (a) Meydoms forgleyma, og a Smaanena þijns Eckiudoms ecke framar minnast.

(a) (Meydoms) Ad þu hefur vered Barnlaus og volud j Mootgange aan Egtamanns.

5. Þviad hann Sa ed þig hefur giort hann er þinn Madur, DROTTinn Zebaoth er hans Heite, og þinn Endurlausnare Sa hinn Heilage j Israel, hann sem allrar Verallda rennar Gud verdur kalladur.

6. Þviad DRottenn hefur lated þig j Ryktenu vera, ad þu værer sem onnur yfer giefenn, og af Hiarta Harmþrungenn Kvinna, og sem onnur Yngis-Kvinna, su ed a burt rekenn er, seger þinn Gud.

7. Eg yfergaf þig a litlu Augna-bragde, enn med mikille Miskunseme þa vil Eg samansafna þier.

8. Eg hefe mitt Andlit, a Augabragde Reidennar, um litla Stund, hulid fyrer þier, Enn med Eylijfre Miskunseme þa mun Eg þier Miskunsamur vera, seger DROTTinn þinn Endurlausnare.

9. Þviad soddann skal mier vera, so sem Vatned Noæ, þa ed Eg svor, ad Noa Vatn skyllde ecke meir ganga yfer Jordena. Lijka so hefe Eg svared, ad Eg skyllde ecke reidur uppa þig vera nie þig straffa.

10. Þviad Fiollenn skulu ad sonnu vijkia, og Hædernar nidurfalla, Enn mijn Miskun skal ei burt fra þier vijkia, og Saattmaalenn mijns Fridar skal ecke nidurfalla, seger DROTTenn þinn Miskunare.

11. Þu hin Volada! yfer hvoria ed oll Storm-Vidre ganga, og þu hin Huggunarlausa!

12. Sioa þu, Eg vil þijna Steina leggia sem adra Fegurdar-Pryde, og þinn Grundvoll vil Eg leggia med Saphiris-Steina, og þijna Glugga af Crystallus giora, og þijnar Dyr af Rubinum, og oll þijn Endemork af utvoldum Steinum.

13. *Og oll þijn Born af DROTTne mentud, og mikenn Frid þijnum Bornum.

* Joh. 6, 45.

14. Þu skallt fyrer Riettlæted tilreidd verda. Þu munt Fiarlæg vera Ofrijke og (b) Oriettindum, so ad þu þurfer ei þar fyrer ad ottast, Og fyrer Skielfingu, þvi hun skal ecke nalægiast þig.

(b) (Oriettindum) Þad er, Þu skallt ecke leingur lijda Rangindi.

15. Sioa þu, Hvor vill samansafnast a moote þier, til ad yferfalla þig, ef ad þeir samansafnast aan Mijn?

16. Sioa þu, þvi kiem Eg til Vegar, ad Smidurenn blæs upp Kolinn j Elldenum, sem giore eitt Verkfære þar ut af, til sijns (c) Verks. Þvi Eg giore þad, ad sa Fordiarfarenn fyrerferst.

(c) (Verks) Þad er, Hann fordiarfar sig og þijna enn þig ecke.

17. Þviad allt Verkfære sem a moote þier verdur til reidt skal ecke luckast, og allar Tungur sem setia sig a moote þier þær skalltu j Dome fordæma, þad sama er Arfleifdenn þeirra Þionanna DROTTins, og þeirra Riettlæte ut af mier, seger DRottinn.

## LV. Capitule.

Aller Syndarar sem Idrast af Hiarta verda Riettlætter, og Helgader af Naad, so þeir verda Eylijflega Saaluholpner.

Nu*vel! Aller þier sem þyrster erud, Komed hingad til Vatnsins, Og þier sem ongva Peninga hafed, Komed hingad, kaupped og eted, komed hingad og kauped aan Peninga, og fyrer ecke neitt, bæde Vijn og Miolk! * Joh. 7, 37. Opb: B: 22, 17.

2. Hvarsfyrer telied þier Peninga ut, þar ecke neitt Braud er, og ydar Erfide, hvar þier kunned ecke sadder af ad verda? Heyred mier þo, og eted þad Gooda, þa mun ydar Saala j Sælgiæte Feit verda.

3. Hneiged ydvar Eyru hingad, og komid hier til mijn, Heyred, þa mun ydvar Saala lifa, þviad *Eg vil vid ydur Eylijflegann Saattmaala giora, sem er þa Visselegu Naadena (a) Davids. *Giorn: B: Post: 13, 34.
(a) (Davids) Su sem David var fyrerheitenn.

4. Sioa þu, Eg hefe sett Lydnum hann til Vitnis-Manns, til Hofdingia og Yfirbodara Folkenu.

5. Sioa þu, Þu munt hina Heidnu kalla, hvoria ed þu þeckter ei, og þeir hiner Heidnu sem ecke þeckia þig, munu hlaupa til þijn, Vegna DROTTins Guds þijns, og þess hins Heilaga j Israel, sem þig Vegsamar.

Texte j Hoa-Messunne a þann Almennelega Bænadag.

6. Leited DROttins a medann hann maa finnast. Kalled a hann a medann hann er naalægur!

7. Sa hinn Ogudlege laate af sijnum Veige, og Illvirkenn af sinne Hugsan, og snue sier til DROTTins, þa mun hann Miskunna honum, og til Guds Vors, þviad j hia honum er Mikel Fyrergiefning.]

8. Þvi mijnar Hugsaner eru ei sem ydrar Hugsaner, og ydrer Veiger eru ei mijner Veiger, seger DROTTinn.

9. Helldur, So miklu meir sem þad Himenenn er hærre enn Jordenn, so eru eirnenn mijner Veiger hærre enn ydar Veiger, og mijnar Hugsaner, enn ydrar Hugsaner.

10. Þviad lijka sem Regned og Sniorenn þad fellur af Himnum ofann, og kiemur ei þangad aptur, Helldur Vokvar þad Jordena, og hana friodsama giorer, og groande, so ad hun giefur Sæded til ad saa, og Brauded til ad eta,

11. So skal þad Orded, sem ut af mijnum Munne frammgeingur, eirnenn vera, þad skal ecke tomt aptur til mijn koma, Helldur giora þad hvad mier vel þocknast, og þad skal vel gagnast honum til hvors Eg sende þad.

12. Þviad þier skulud j Gledinne ut fara, og j Fridnum leidder vera, Fiollenn og Hoalsarner skulu fyrer ydur gladvær vera, medur Lofsong, og oll Trien a Morkinnum med Lofa-Klappe.

13. Grened skal vaxa j Stadenn Þistlanna, og Myrtus-Trien j Stadenn Þyrnanna. Og DROttne skal þad eitt Nafn, og eitt Eylijft Teikn vera, þad ecke mun afmaad verda.

## LVI. Capitule.

Esaias talar (I) um Gudrækelegt Frammferde hiña Truudu; og (II) um Ogudlegt Athæfe hinna Vantruudu.

I. Svo seger DROTTenn, Hallded Domenn, og giored Riettvijsena, þviad mitt Hiaalpræde er nærre, so ad þad kome, og mitt Riettlæte, svo ad þad opinbert verde.

2. Sæll er sa Madur sem soddan giorer, og þad Manns Barn sem þad fastlega helldur, þad hann hallde Þvottdagenn, og saurge hann ei, og vardveite sijnar Hendur, þad hann giore ei neitt Vondslegt.

3. Og sa hinn Framande, sem hefur giefed sig til DROttins, skal ei segia. DROttinn mun skilia mig j fra sijnu Folke.

4. Og sa sem Gielldur er, skal ei segia, Sioa þu, eg em eitt þurt Trie. Þviad so seger DROTTenn til þeirra sem Gielldur eru, þeir ed hallda mijna Þvottdaga, og utvelia þad hvad mier þocknast, og hondla fast minn Saattmaala.

5. Þeim mun Eg giefa Plats j mijnu Huse, og innann minna Murveggia, og betra Nafn enn Sonar og Dottur. Eitt eylijft Nafn vil Eg giefa þeim, þad ei skal forganga.

6. Og þau annarlegu Born, sem sig hafa giefed til DROTTins, so ad þau þione honum, og elske hans Nafn, so ad þau sieu hans Þionar, sierhvor sa sem helldur Sabbathsdagenn, so hann saurge hann ei, og helldur fastlega minn Saattmaala.

7. Pa somu vil Eg færa til mijns hins Heilaga Fialls, og vil gledia þa j mijnu Bæna-Huse, og þeirra Forner og Brenne-Offur skulu mier þacknæmar vera a mijnu Alltare *Þviad mitt Hus kallast Bæna-Hus Ollu Folke. *Matth. 21, 13. Marc. 11, 17. Luc. 19, 46.

8. Sa DROTTenn DROTTenn sem hina utreknu af Israel samansafnar, hann seger, Eg vil enn fleyrum safna j þeirra Hoop, sem samansafnader eru.

II. 9. Oll Dyrenn a Morkenne! Komed og eted. Jaa, oll Dyrenn j Skogenum!

10. Aller þeirra (a) Vokumenn eru Blinder, þeir vita aller eckert, Hliodlauser Hundar eru þeir, sem ecke kunna um ad vanda, eru Later, liggia og sofa giarnann.

(a) (Vokumenn) Þad eru Fals-Kiennemenn.

11. Enn þad eru þo Hrauster Hundar af Gyrugleika, sem alldrei kunna Sadder ad verda. Sioa, Hyrdararner hafa ongva (b) Skinsemd, hvor eirn horfer a sinn Veg, hvor eirn þeirra er Agiarn fyrer sig j sinne Stiett.

(b) (Skinsemd) Þad er, Guds Ord.

12. Komed hingad, loatum oss Vijnid sækia, og drecka oss druckna, og a Morgun skal þad vera so sem j Dag, og enn miklu framar.

13. Enn sa hinn Riettferduge hann tortijnest, og þar er eingenn sem þad legge uppa Hiartad, og Heilager Menn verda j burt safnader, og eingenn hyggur ad þvi. Þviad hiner Riettferdugu verda burt tekner fra Ogiæfunne, og þeir sem Riettferduglega hafa geingid koma til Fridar, og hvijlast j sijnum Svefnhusum.

## LVII. Capitule.

Esaias talar (I) um Synder og Straff Gydinga-Fol'ks; So og (II) um Huggun og Vidreisting þeirra af Gydingum er audmykie sig.

I. Og þier komid hingad, þier Born hennar sem (a) Dagana utvelur, þier Sæded Hoorkonunnar, og Skiækunnar!

(a) (Sem Dagana utvelur). Eru þeir sem falsklega hallda til samans; a moote Guds Orde.

2. A hvorium vilied þier nu ydar Lysting hafa? Yfer hvorium vilied þier nu uppsperra Munnenn? og Tunguna utrietta? Hvort erud þier ecke þeir Synerner Yfertrodslunnar, og eitt falskt Sæde.

3 Þier sem j Brunanum hlaupid til Afgudanna, under oll grænkud Trie, og sloatrid Bornunum hioa Lækiunum, under Steinklettunum.

4. Þijn Umsijslan er vid þa sliettu Lækiar-Steinana, þeir hiner somu eru þijn Hlutdeilld, a þa somu utheller þu þijnu Dryckiar-Offre, þar ed þu fornar Matar-Offur, Skyllde Eg (b) hugga mig þar vid?

(b) (Hugga) Þad er, Lata mier þad bocknast.

5. Þu giorer þitt (c) Legu-Rum uppa einu miog hoau Fialle, og þu geingur og so upp þangad ad offra.

(c) (Legu-Rum) So kallar hann Skurgoda Alltare, þar þeir med sijnum Afgudum hoorndust, sem ein Lausakona med Hoorkarle. Og ad fara til Kongs Pharas med Smirsl, er ad treysta upp a Mennena.

6. Og a bak vid Dyrnar og Dyrustafena setur þu þijna Minning, þviad þu vellter þier fra mier, og geingur upp þangad og giorer þitt Legu-Rum vijdt, og sambindur þad vidur þa, Þu elskar þeirra Legu-Rum hvar sem þu sier þa.

7. Þu reiser med Vidsmior til Kongsins, og hefur marghaattud Smyrsl, og sender þijna Sendeboda langt j burt, og ert nidur-lægd allt til Helvijtis.

8. Þu omakar þig j Fioldanum þijns Vegar, og seger ecke, eg læt þar af, helldur a medann þu finnur Lijf j þinne Hende þa mædest þu ecke.

9. Fyrer hvorium sorgar þu, og ottast so? Firstt ad þu fer þo med Lygar, og hugsar ecke til mijn, og tekur þier þad ecke til Hiarta. Þeinker þu, ad Eg mune alltjafnt þeigia, þad þu so giorvallegana ottast mig ecke?

10. Enn Eg vil þitt Riettlæte kunnigt giora,

ra, og þijn Verk, ad þau skulu þier eingenn Nytseme vera.

11. Nær ed þu kallar, þa lœattu þinn Flock hiaalpa þier, Enn Vindurenn mun þeim øl-lum i burt svipta, og Hiegomenn mun j burt taka þa.

II. Enn hvor hann vonar a mig Sa mun Landed erfa, og eignast mitt hid Heilaga Fiall.

12. Og mun segia. (d) Giøred Veguna, giøred Veguna, Rymid ut Veigenn, Taked burt þær œasteytingar af Veigenum mijns Folks!

(d) (Giøred Veguna) Þad er, j Þreyngingu og Neyd skulu þeir hafa Rum og Huggun.

13. Þviad so seger Sa hinn Hœaſe, og Hann ed upphafenn er, Sa ed Eylijflegana byr, Hvors Nafn ad Heilagt er. Eg Sa sem j Hædunum og j Helgedomenum bygger, og j hiaa þeim sem hafa sundurknosadañ og lijtillœatann Anda, so ad Eg lijfge Andann hinna Lijtillœatu, og Hiortun þeirra j sundurmordu.

14. Eg vil ei þrœatta med Jafnade, og ecke reidast æfinlegana. Helldur skal eirn Ande af mijnu Auglite sveima, og Eg vil Andardrættena giora.

15. Eg var Reidur uppa Odygd þeirra Agyrndar, og slo þa, geymda mig, og vard Reidur. Pa rœafudu þeir hingad og þangad a Veigenum sijns Hiarta.

16. Enn þa ed Eg œaleit þeirra Vegu, græddeEg þa, og leidde þa, og huggade þa aptur, og þa sem (e) grietu yfer þeim.

(e) (Grietu) Þeir hinu godu grœata yfer Illsku hinna Ogudlegu, so sem Loth j Sodoma.

17. Eg mun til-reida Avoxtenn þeirra Vara, ad þeir predike Frid, Frid, bæde þeim sem eru fiarlæger, og þeim sem nœalæger eru, seger DROTTinn, og vil lækna þa.

18. Enn hiner Ogudlegu eru sem uppþiootande Sioor, sa ed ei kann kirr ad vera, og hans Bylgiur utkasta Saur og Ohreinendum.

19. Hiner Ogudlegu hafa øngvann Frid, seger minn GUd.

# LVIII. Capitule.

Sonn Guds Þionusta er (I) ecke Innefalenn j Hræsnes-Føstu; Helldur (II) er hun Innefalinn i Miskunseme vid Naungann, og (III) Helganenne fyrer GUde.

I. 1. Kalla þu j Akefd, Væg eige, upphef þijna Raust sem eina Basunu, og kunngior mijnu Folke þeirra Yfertrodslur, og þvi Husenu Jacobs sijnar Synder.

2. Þeir leita mijn daglega, og vilia vita mijna Vegu, so sem þad Folk ed allareidu Riettvijsena giort hefde, og Doomenn sijns Guds hefde ecke yfergiefed, Þeir kresia mig til Dooms, og vilia þreyta Løg vid þeirra GUd.

3. Hvar fyrer þa fostum vier, og Þu œalytur þad ecke, Hvar fyrer þiœaum vier vorar Sœaler, og Þu villt eige vita þad? Siœaed! nær þier fasted, þa gioreð þier ydvarn Vilia, og þvinged alla ydra Skullda-Menn.

4. Siœaed! þier fasted ad þier deiled og þræted, og slœaed med Knefunum Ogudlegana. Fasted ei so sem nu gioreð þier, so ad af ydur heyrt verde eitt Kall j Hædernar.

5. Skyllde þad vera su Fasta hvoria Eg skyllde utvelia, þad Madurenn þvingade sinn Lijkama a Deigenum? Edur heinge nidur Hofuded sem Sef? Edur jklædest Seck, og ligge j Osku? Vilied þier kalla þetta Føstu, og eirn þacknæmelegann Dag DROTTni?

II. 6. Enn þad er su Fasta sem Eg utvel, Lœattu þa lausa sem þu hefur med Rangindum j Bond sett, Lœat lausa þa sem þu ofþynger, gief þa frialsa sem þu þreynger, Slijt j burt allann Punga.

7. Briot þu Hungrudum þitt Braud, og innleid þa sem Volader eru j þitt Hus. * Sier þu nockurn Nakenn, þa klæd þu hann, og drag þig ecke fra þijnu Holdde.

* Matth. 25, 36.

8. Þa mun þitt Lios hier frammbriotast sem Morgun-Rode, og þijn (a) Forbetran mun snarlega aukast, og þitt Riettlæte mun

ganga framme fyrer þier, og Dijrdenn DROTTins mun taka þig til sijn.

(a) (Forbetran) Ad þu andgest, og þier fare framm, bæde at Gotse þijnu og Velferd.

9. Þa muntu kalla, so mun DROTTenn þier Andsvar giefa. Þa ed þu kallar, þa mun Hann segia, Sioa þu! Hier em Eg. Ef ad þu þynger eigvum hioa þier, og vijsar eige med Fingrenum, og talar eige neitt Vondslegt.

10. Og lætur hinn Hungrada finna þitt Hiarta, og mettar svo þa hina Foaroadu Soalu, Þa mun þitt Lioos j Mirkrunum upprenna, og þijn Mirkur munu vera sem Middeige.

11. Og DROTTenn mun þig ætijd leida, og þijna Soalu sedia j Þurkenum, og þijn Bein styrkia. Og þu munt vera sem annar vokvadur Jurtra-Gardur, og sem annar Uppsprettu-Brunnur þann alldrei þrytur Vatn.

12. Og fyrer þig skal (b) uppbyggt verda hvad leinge hefur j Eyde leiged, og þu munt þann Grundvoll leggia sem standa mun um Alldur og Æfe, og þu skallt kallast uppbyggiare brostinna Gyrdinga, og sa ed Veigena forbetrar, so ad þar meige bua.

(b) (Uppbyggt) Þad er, Þu skallt vera Verndar-Madur og Forbetrunar-Madur j Landenu, gagnast og hioalpa mørgum.

III. 13. (c) Ef ad þu burt snyr þijnum Fæte fra Sabbaths-Deigenum, so ad þu giorer ecke hvad þu villt, a mijnum Heilogum Deige, þa mun þad Lystelegur Sabbaths-Dagur kallast, DROTTne til Helgunar, og til Lofs. Þviad so muntu prijsa Hann, nær ed þu giorer ecke þijna Vegu, og ad þad verde ecke þar jnne funded hvad þier sialfum vel lijkar, eda þad hvad þu talar.

(c) Hier seger og frammsetur hann riettann Skilning um Sabbaths-Dagana, ad Menn skulu þa jdka Guds Verk og Ord.

14. Þa muntu Lysting hafa til DRottins, og Eg vil loata þig sveima upp yfer þeim hoau a Jordunne, og mun fæda þig medur Arfleifd þijns Fodurs Jacobs. Þviad Munnur DROTTins seger þad.

# LIX. Capitule.

Gydinganna Olucka kom ecke (I) af nockrum Vanmætte Guds; Helldur (II) vegna þeirra Eginn Gudleyses.

I. Sioa þu! Hond DROTTins er ei ofstutt, þad hun kunne ei ad hioalpa, og hans Eyru eru ei þick vordenn, ad hann heyre ei.

2. Helldur ydrar Odygder ad-skilia ydur og ydvarn GUD, hvoria fra odrum, og ydrar Synder byrgia Andlited fra ydur, so ad þier verded ei heyrder.

3. Þviad ydrar Hendur eru med Bloode saurgadar, og ydrer Fingur med Jllgiordum, ydrar Varer þær tala Lygar, ydar Tunga dicktar þad upp hvad Oriett er.

4. Þar er sa eingenn sem af Riettlætenu predike nie trulega (a) dæme. Þeir treysta uppa Hiegomann, og tala þad hvad ei duger. Med Ogiæfuna eru þeir þungader, og fæda Mæduna.

(a) (Dæme) Þad er, Kienne, þvi hier talar hann um falska eiturlega Kiennendur.

5. Þeir utklekia Basiliskus Eggium, og vefa Konguloar Vefu. Ete Madur af þeirra Eggium sa hlytur ad deya, enn verde þau j sundur trodenn þa skrijdur þar eirn Eytur Ormur ut.

6. Þeirra Konguloar Vefur duger ei til Klæda, og þad sem þeir hafa ofid duger ei til Skiools, Þviad þeirra Verk eru Erfidismuner, og j þeirra Hondum eru Ranginde.

7. Þeirra Fætur skunda til hins Vonda, og * eru flioter til ad uthella Saklausu Blode, þeirra Hugsaner eru Erfidismuner, þeirra Vegur er ecke utann Fordiorfun og Skade.

* Rom. 3, 15.

8. Þeir þeckia ei Veigenn Fridarins, og þar eru eingenn Riettinde j þeirra Gongu.

Þeir

Þeir eru rangſnuner a ſijnum Vegum, Hvor
ed þar uppa geingur ſa hefur alldrei Frid.
II. 9. Þar fyrer er ſa Rietturenn langt fra
oſs, og Riettlæted þad odlunſt vier ecke. Vier
væntum epter Liooſenu, Sioa þu! þa verdur
Mirkur, epter Birtunne, Sioa þu! þa
gongum vier j Mirkrenu.
10. Vier foalmum epter Veggium, ſem hi-
ner Sioonlauſu, og þreyfum, ſo ſem þeir ed ein-
genn Augu hafa, vær ſteytum oſs a um Mid-
deiged, ſo ſem i Rockrinu, vier erum j Mirkri-
nu, ſo ſem hiner Daudu.
11. Vier rymium aller ſem Biarndyr, og kry-
tium ſem Dufur, þviad vier væntum epter
Riettenum, þa er hann þar ecke, epter Hioalp-
rædenu, þa er þad langt j burt fra oſs.
12. Þviad vorar Yfertrodſlur eru hellſt til
miklar fyrer Þier, og vorar Synder bær And-
ſvara j moote oſs. Þviad vorar Yfertrodſlur
eru hioa oſs, og vier finnum til vorra Synda.
13. Med Yfertrodſlum, og Lygum a mo-
te DRottne, og med Burt-Snuninge j fra vo-
rum Gude, og med Offtækis-Ordum og O-
hlydne, oaſtundum og uppkveikium lygeleg
Ord ur Hiartanu.
14. Þar fyrer er eirnenn ſa Rietturenn til
baka geingenn, og Riettlæted langt j burtu fa-
red, þvi Sannleikurenn fellur nidur a Strætu-
num, og Rietturinn kann ecke hier inn ad ganga.
15. Og Sannleikurenn er j burt, og hann
hvor ed ſnyſt fra Illu, ſa hlytur ad vera hvors
Manns Herfang. Þad ſama ſier DROT-
Tinn, og þad lijkar honum jlla, ad þar er ecke
neirn Riettur.
16. Og hann ſier, ad þar er eingenn,
og hann furdar þad, ad eingenn geingur
framm fyrer þa. Þar fyrer hioalpar hann
honum Sioalfur med ſijnum Armlegg, og vid
Magt helldur honum med ſijnu Riettlæte.
17. Þviad hann j klædeſt Riettlætenu ſem
Hringa-Briniu,* og ſetur Hioalprædis Hioal-
minn a ſitt Hofud, og byr ſig ut til Hefndar,
og klæder ſig med Vandlætenu, ſem med od-
rum Kyrtle.

* Epheſ: 6, 17. 1 Theſſ: 5, 8.

18. So ſem ſa ed vill endurgiallda ſijnum
Motſtodu-Monnum, og ad bitala ſijnum O-
vinum medur Grimmd, Ioa, þeim Eyu-
num vill hann bitala.
19. So ad þeir ottiſt Nafned DROT-
Tins i fra Nidurgongu, og hans Dijrdar-
Vegſemd j fra Uppgongu Soolarennar, nær
ed hann mun koma ſo ſem eirn ſtijffldur Strau-
mur, þann ſem Vindur DROTTins fram-
drijfur.
20. Þviad þeim * til Zion mun Endurlauſ-
narinn koma, og þeim ſem ſier j burt ſnua fra
Syndunum j Jacob, ſeger DROTTinn.

* Rom. 11, 26.

21. Og Eg giore ſoddann Soattmoala vidur
þa, ſeger DROTTinn. Minn Ande ſem
hioa þier er, og mijn Ord ſem Eg hefe lagt
j þinn Munn, ſkulu ecke j burt vijkia af þij-
num Munne, nie af Munne þijns Sædis,
og Barna-Barna (ſeger DROTTenn)
hiedann j fra og ad Eylijfu.

## LX. Capitule.

*Her er ſpaad um Ebling Guds Kyrkiu, (I) fyrer Umvendan Heidingia og Gydinga; og (II) um Bleſſan fyrer Chriſtum i Nya Teſtamentenu.*

Texte ſo ſem Piſtill oa Þrettoanda-Hoatijd.

I. Gior þig reidubuna, vertu Biort,
þviad þitt Lios kiemur, og Dijrd
DROttins upp rennur yfer þier!
2. Þvi ſioa þu! Mirkrenn hylia Jordena,
og Þokann Folked. Enn yfer Þier uppren-
nur DROTTinn, og hans Dijrd ſkijn yfer
þier.
3. Og Heidingiarner munu ganga j þijnu
Lioſe, og Kongarner j þvi Skine ſem yfer þier
upprennur.
4. Lypt upp þijnum Augum, og ſioa um-
hverfis, þeſſer aller ſamanſafnader koma til
þijn. Syner þijner munu koma ur Fiarlægd,
og Dætur þijnar munu hioa Hlidenne upp-
foſtraſt.
5. Þa muntu ſioa þijna Lyſting, og ut-
briotaſt,

briotast. og þitt Hiarta mun undrast og (a) utbreida sig, nær ed sa Mugafioldenn vid Sioonn snyst til þijn, og þa ed su Magtenn Heidingianna kiemur til þijn.

(a) (Utbreida) So sem þa Vatnsfoll framinhlaupa og sig utbreida.

6. Þviad sa Fioldenn Ulfalldanna mun hylia þig, þeir Hlauparar ur Madian og Epha, Aller af Saba munu koma, færande Gull og Reykelse, og kunngiorande Lof DROTTins.]

7. Allar Hiarder j Kedar skulu til þijn safnadar verda, og Hrutarner Nebaioth skulu þier þiona. Þeir skulu uppa mijnu þægelegu Alltare offradar verda, Þviad Eg mun pryda Hused minnar Vegsemdar.

8. Hvorier eru þeir ed fliuga sem Skijenn, og so sem Dufurnar til sinna Vind-Glugga?

9. Þær Eyarnar vænta Mijn, og Skipenn hioa Sioonum fyrer longu, so ad þeir fære hingad þijn Born ur Fiarlægd, medur þeirra Silfre og Gulle, Nafnenu DRottins Guds þijns, og þeim Heilaga j Israel, sem þig hefur Vegsamlega giort.

10. Framande munu uppbyggia þijna Murvegge, og þeirra Kongar munu þier þiona. Þviad j minne Reide hefe eg slieged þig, og j minne Lijknseme em Eg þier Miskunsamur.

11. Og* þijnar Dyr skulu med Jafnade opnar standa, og hvorke um Dag nie Nætur aptur loatnar verda, so þad Magtenn Heidingianna sie til þijn hofd, og þad þeirra Kongar verde hingad leidder.

*Opinb: B: 21, 25. 26.

12. Þviad hvorier þeir Heidingiar, edur þau Kongarijke, sem ecke vilia þier þiona, þa skulu fyrerfarast, og Heidingiarner foreydder verda.

13. Vegsemdenn Libani skal til þijn koma, Grenid, Beiked, og Busbomid, hvort med odru, til ad pryda þann Stadinn mijns Helgedoms. Þviad Eg mun þann Stadenn minna Foota vegsamlegann giora.

II. 14. So lijka eirnenn skulu þeir biuger til þijn koma, sem þig hafa underþrickt, og þeir aller sem þig hafa lastad, munu nidurfalla til þinna Fota, og munu kalla þig Borg DROTTins, þa Zion hins Heilaga j Israel.

15. Þvi þar fyrer, ad þu varst su Yfergiefna og Hatada, til hvorrar eingenn gieck, þa vil Eg þig ad Skraute giora, Eylijfleganna og til Fagnadar Glede um Alldur og Æfe.

16. So ad þu skallt Miolkena utsiuga af Heidinginnum, og Konganna Briost skulu giefa þier ad siuga. So ad þu reyner þad Eg em DROTTinn, þinn Frelsare, og Eg Sa hinn Vollduge j Jacob, er þinn Endurlausnare.

17. Eg vil færa Gull j Stadinn Kopars, og Silfur j Stadenn Joarnsins, og Kopar j Stadenn Triesins, og Joarn j Stadinn Griotsins. Og Eg vil giora þad, ad þijner Forstiorar skulu Fridenn kienna, og þijner Fyrersionar-Menn Riettlæted predika.

18. Þar skulu eingenn Roanginde leingur heyrast j þijnu Lande, og eingenn Skadsemd nie Fordiorfun j þijnum Takmorkum, Helldur skulu þijner Murvegger Hioalpræded, og þijnar Dyr Forprijs kallast.

19. *Solenn skal ecke skijna þier a Dagenn leingur, og Birtann Tunglsins skal ecke lysa þier. Helldur mun DROTTinn vera þitt eylijft Lios, og þinn Gud hann mun vera þinn Prijs. *Opinb: B: 21, 23.

cap. 22, 5.

20. Þijn Sool mun ecke meir undergannga, nie þitt Tungl Birtuna missa, þviad DROttenn mun vera þitt eylijflegt Lios, og Dagarner þinnar Hormungar skulu eirn Enda hafa.

21. Og þitt Folk skal allt vera Riettferdugt, og mun Jardrijked eignast eylijflegana,

na, so sem þeir ed eru Kvister minnar Plantanar, og Verk minna Handa til Hroosunar.

22. Ut af þeim minsta skulu Þusund verda, og ut af þeim Smærstu eitt Megtugt Folk. Eg DROTTenn vil slijku a sijnum Tijma snarlega til Vegar koma.

## LXI. Capitule.

Naad og Fridur af Gude fyrer JEsum Øllum Truudum til Handa, Eins Heidingium sem Gydingum.

*ANde DROTTins DROTTins er yfer Mier, þar fyrer hefur DROttinn smurt Mig, Hann hefur sendt Mig til ad Predika Voludum, ad leggia vid þau sundurknosudu Hiortu, til ad Predika þeim Herteknu Freised, þeim hinum Bundnu ad upp sie Lokid. *Luc. 4, 18.

2. Til ad Predika Naadarsamlegt Aar DROTTins, Og eirn Hefndar-Dag Vors Guds, til Hugguunar øllum Harmþrungnum.

3. Til ad afreka þeim Sorgbitnu j Zion, ad þeim giefest Fegurdar-Prydenn fyrer Oskuna, og Fagnadar Vidsmior fyrer Hriggdena, og kostuleg Klæde fyrer Sorgar-Anda. So ad þeir kallader verde Trie Riettlætesins, Rotsetning DROttins, til Lofs.

4. Þeir munu þa gomlu Eyde-Stadena byggia, og vidrietta þad aptur hvad fyrr meir var nidurbroted. Þeir munu uppnya aptur þær foreyddu Borgernar, sem um Alldur og Æfe hafa j Eyde leiged.

5. Framande munu standa, og ydar Hiord fæda, og hiner Utlendsku munu ydar Akur-Menn og Vijngards-Menn vera.

6. Enn þier skulud DRottens Kiennemenn heita, og Menn munu kalla ydur Þiona Guds Vors. Og þier munud eta Audæfenn Heidingianna, og hroosa ydur yfer þeirra Vegsemd.

7. Fyrer ydra Forsmaan skal Tvefallt koma, og fyrer ydra Vanvirdu skulu þeir glad-værer vera a þeirra Akurlondum. Þviad þeir skulu tvisvarsinnum eignast so mikid j þeirra Lande, þeir skulu Eylijfflegann Fognud hafa.

8. Þviad Eg em DROTTenn Sa ed Riettenn elskar, og ad Hatre hefur (a) Reyfaranna Brenne-Offur. Og Eg mun þad giora, ad þeirra Erfide skal vissolegt vera, og eirn Eylijfann Saattmaala vil Eg giora vidur þa.

(a) (Reyfaranna) Þad er oll su Guds-Pionusta, med hvørre Menn leita ecke epter Guds Dijrd, helldur epter sijnu eigenn Gagne, Hroosun og Glede.

9. Og þeirra Sæde skal audkient medal Heidingianna, og þeirra Epterkomendur medal Folksins, so ad aller þeir sem þa munu sioa, munu þeckia þa, ad þeir sieu þad Sæded sem Blessad er af DRottne.

10. Eg gled mig j DROTTne, og Mijn Saala er gladvær j Gude mijnum. Þviad hann hefur j-klædt mig Klædum Hiaalpræde-sins, og medur Mottlinum Riettlætesins klædde hann mig. Lijka sem Brudguma pryddann Kiennemannlegum Skruda, og so sem adra Brude prydda med sijnu Skarte.

11. Þviad lijka sem Avøxturenn vex ur Jordunne, og Sæded upprennur j Gras-Gardenum, Lijka so mun Riettlæted og Lofed uppganga fyrer øllum Heidingium, ut af DROTTne DROTTne.

## LXII. Capitule.

Helgun og Vegsemd Guds-Kyrkiu i þvi Nya Testamente utmaalast.

VEgna Zion mun Eg eige þegia, og Vegna Jerusalem mun Eg eige kirru hallda, þangad til ad hennar Riettlæte uppgeingur sem annar Geisle, og hennar Hiaalpræde brennur, sem annad Blys.

2. So ad hiner Heidnu sioae þitt Riettlæte, og aller Kongarner þijna Dijrd. Og þu skallt med Nyu Nafne nefnd verda, hvørt ed Munnur DROTTens mun nefna.

3. Og þu munt vera eitt Faaurt Dioasn j Hende DROTTins, og eirn Konunglegur Hattur j Hende Guds þijns.

4. Þu skallt ecke leingur kallast hin Yfergiefna, nie þitt Land Foreydsla kallast. Helldur skallt þu kallast (Mijn Lysting a Henne) og þitt Land (a) Kiæra Brudur) þviad DRottinn hefur Lyst til þijn, og þitt Land hefur eina kiæra Brudur.

(a) (Kiæra Brudur) Þad er, Sem ecke er fyrer utan Mann, og forlaatenn, helldur er kiær og i Virdingu so sem Unnusta.

5. Þviad lijka sem Ungur Madur hefur sijna Unnustu kiæra, so munu þijn Born þig kiæra hafa. Og so sem þad Brudgumenn gledur sig yfer Brudenne, so mun þinn Gud gledia sig yfer þier.

6. O Jerusalem! Eg mun Vokumenn tilskipa uppa þijna Murvegge, þeir ed alla Daga og allar Nætur skulu alldreige hlioodder vera, og þeir ed skulu minnast DRottens.

7. So þad j hioa ydur sie eingenn Pogn, og þier þeiged ecke um Hann, þangad til ad Jerusalem verdur buenn, og verde sett til Lofs a Jordu.

8. DROTTinn hann hefur svared vid sijna Hægre Hond, og vid Armlegginn sijns Magtarvelldis. Eg vil ei leingur giefa þitt Korn þijnum Ovinum ad eta, nie laata Framande Menn drecka þitt þad sæta Vijned, sem þu hefur Erfide fyrer haft.

9. Helldur þeir sem þvi safna skulu eirnenn þess neyta, og lofa DROTTenn, og þeir ed þad jnnbera skulu drecka þad j Forgarde mijns Helgedooms.

10. Ganged burt, Ganged burt, j Giegnum Portinn, tilreided Foolkenu Veigenn, giored Brautena, giored Brautena, rooted j burt Steinonum, Setied upp Merked fyrer Folkenu.

11. Sioaed, DROTTinn lætur heyra sig allt til Enda Veralldarennar. Seged Dotturinne Zion, * Sioa þu! Þitt Hioalpræde kiemur, Sioa þu, hans Laun eru hioa Honum, og Hans (b) Endurgialld er fyrer Honum. *Matth. 21, 5. Joh. 12, 15.

b) (Endurgiallb) Hann mun ecke giora lauga Dvøl a ad launa þeim Godu, og straffa þa Vondu.

12. Menn munu kolla þa þad Heilaga Folk, þa Endurleystu DROTTens, Og þu munt kallast hin Heimsokta Borg, og ecke hin Yfergiefna.

# LXIII. Capitule.

Christur er fyrer sinn Dauda ordinn Sigurvegare ollum Þiodum til Saaluhioalpar.

* Hver er Sa sem kiemur af Edom, med Raudlitudum Klædum af Bazra, sem so pryddur er j sijnum Klædnade, og hier frammbrunar j sijnum mikla Krapte? Eg em hann Sa sem Riettlæted kienner, og eirn Meistare er til ad hioalpa.

* Opinnb: B: 19, 12, 13.

2. Hvar fyrer er þa þinn Klædnadur so raudur ad Lit, og þitt Klæde so sem þess ed Vijn-Pressuna tredur?

3. * Eg Fottred Vijn-Pressuna Eirn samann, og þar er Eingenn af Folkenu medur mier. Eg hefe pressad þa j Reide minne, og nidur troded j minne Heipt. Þar fyrer hefur þeirra Megn dreisst a mijn Klæde, og Eg hefe velkt allann minn Klædnad.

* Opinnb: B: 19, 15.

4. Þviad Eg hefe aasett mier Hefndar-Dag, Þad aared, til ad Endurleysa Mijna, er komed.

5. Þviad Eg skygndunst j kringum mig, og þar var eingenn Hioalpare, og Eg var j Skelfingu, og eingenn studde mig. Helldur vard minn Armleggur ad hioalpa mier, og mijn Reide studde mig.

6. Þar fyrer hefe Eg Folked nidurtroded j minne Reide, og hefe þa druckna giort j minne Bræde, og þeirra Megne til Jardar hrunded.

# LXIV. Capitule.

Esajas talar (I) um Velgiørninga sem þær Priar Persónur Guddomsins hafe auglyst Gydinga Folke; So og (II) um Komu Messiæ i Heimenn.

I. 1. Eg vil minnast Miskunsemdar DROttens, og þess Lofstyrs DROTTins, j Ollu þvi ed DROttenn hefur giort vid oss, og þess hins Mikla Goda vid þad Hused Israels, sem hann hefur þeim giort, fyrer siina Miskunseme og Mikla Goodgyrne.

2. Þviad hann sagde, Þeir eru ad sönnu mitt Folk, þau Born sem ecke eru folsk, þar fyrer var Hann þeirra Frelsare.

3. Hvor hann angrade þa, sa angrade Hann eirnenn, og sa Eingellenn sem fyrer hans Augsyn er, Hialpade þeim. Hann frelsade þa, þar fyrer, ad Hann elskade þa, og vægde þeim. Hann took þa upp, og bar þa alla Tijma, fra Gamallre Tijd.

4. Enn þeir voru gienstrijduger og hrelldu hans Heilaga Anda, þar fyrer vard hann þeirra Ovin, og strijdde a moote þeim.

5. Og hann minntest aptur a þa umlidnu Tijdena, a Moysen, sem var a medal hans Lyds. Hvar er þa nu Hann, sem j burt leidde þa ur Siovum, medur Hyrdernum sinnar Hiardar? Hvar er Hann sem gaf sinn Heilaga Anda medal þeirra?

6. Hvor ed Moysen vidur Hægre Hond leidde, fyrer sinn Dijrdarsamlegann Armlegg. Hvor ed j sundur skilde Votnenn framme fyrer þeim, uppa þad ad hann giorde sier eitt Eylijst Nafn.

7. Hann ed þa leidde j giegnum Diupenn, lijka sem Hesta j Eydemorkena þa ed ecke hnioota.

8. So sem þann Fienad ed ofann geingur a Sliettlendid, hvorn ed Ande DROTTins frammdrijfur. Lijka so hefur Þu þitt Folk eirnenn leidt, uppa þad, ad þu giorder þier eitt Dijrdarsamlegt Nafn.

9. So sioadu nu þvi af Himne ofann, og lijttu nidur af þijnu Heilogu Dijrdarsamlegu Heimile! Hvar er nu þijn Vandlæting, þijn Magt? Þijn mikla Hiartgroenn Miskunseme jnne helldur sier fast vid mig.

10. Þu ert þo vor Fader, þvi Abraham hann veit ei af oss, og Israel hann þecker oss ei. Enn þu DROTTenn ert vor Fader, og vor Frelsare, þegar fyrer langre Æfe er þad þitt Nafn.

11. Hvar fyrer lætur þu oss DROTTenn villt fara af þijnum Vegum, og forhardna vort Hiarta, so ad vier ottunst þig eige? Snu þu aptur, vegna þinna Þionustu Manna, fyrer Saker Ættkvijslanna þinnar Arfleifdar.

12. Þeir eignast þitt Heilaga Folk næsta med ollu, þijner Mootstodu-Menn nidur troda þinn Helgedoom.

13. Vier erum lijka so sem oadur til forna, þa ed þu Drottnader ecke yfer oss, og vier vorum ecke nefnder epter þijnu Nafne.

II. 14. Æ eg villde, ad Þu j sundur sliter Himnana, og færer hingad ofann, so þad Fiollenn utrynne fyrer þier!

15. Lijka sem Annad heitt Vatn uppsodid af Megnum Ellde. So ad þitt Nafn kunnugt verde medal þinna Ovina, og þad hiner Heidnu hlioote fyrer Þier ad skielfast.

16. Fyrer þau Doadsemdar-Verkenn sem Þu giorer, hvorra ei var vænt, þa ed þu foorst ofann, og Fiollenn j sundur runnu fyrer þier.

17.* So sem j fra Veralldarennar Upphafe hafde ei heyrst, nie med Eyrum heyrt, og eckert Auga hefur sied, oan þijn GUD! hvad þa skier sem uppa hann vona. * 1 Cor. 2, 9.

18. Þu mætter þeim Gladværu, og þeim sem Riettlæted jdkudu, og a þijnum Vegum minntust þijn. Sioa þu! Þu reiddest ad Sonnu þa vier syndgudunst, og blifum þar leinge jnne. Enn oss vard þo hialpad.

19. Enn nu erum vier aller til samans so sem hiner Ohreinu, og allt vort Riettlæte er sem annar Obecktar Leppur. Vier erum aller uppvisnader sem Laufblod, og vorar

Synder feykia oss j burt, sem Annar Vindur.

20. Eingenn aakallar þitt Nafn, edur tekur sig upp, þad hann hallde þier. Þviad þu hylur þitt Andlit fyrer oss, og lætur oss j vorum Syndum vanmegnast.

21. Enn nu DROTTinn! Þu ert vor Fader. Vier erum Leyrenn, Þu ert vor Leyrpotta-Smidur, og vier aller erum Verked þinna Handa!

22. DROTTenn! reidstu ecke ofmiog, og minnstu ecke Eylijfflegana a Syndernar, Aliijttu þad þo, ad vier Allersamann erum þitt Folk.

23. Staderner þijns Helgedoms eru ad Orbyle vordner, Zion er ad Obyggd vordenn, Jerusalem liggur eydelogd.

24. Þad Hused vors Heilagleiks og Vegsemdar, þar jnne ed Fedur vorer lofudu þig, er med Ellde uppbrendt, og allt hvad vier hofdum lystelegt, þad er til Skammar giort.

25. DROTTinn! Villtu so hardrodadur vera j slijku, og þeigia um þetta, og nidursloa oss so miog?

# LXV. Capitule.

Esajas talar (I) um Christnan Heidingianna; (II) Um Utskufun Gydinganna; Og (III) um Velferd nockra Faarra af Gydingum.

I. * Mijn verdur leitad af þeim sem ecke spurdu epter mier. Eg verd fundenn af þeim sem ecke leitudu ad mier. Og til þeirra Heidingia sem ecke aakolludu mitt Nafn, sege Eg, Hier em Eg! Hier em Eg!
* Rom: 10, 20.

II. 2. Þviad Eg utriette mijnar Hendur allann Dagenn, til eins Ohlydugs Folks, Hvort ed geingur epter sijnum Hugrenningum, a einum Veige sem ecke er godur.

3. Þad Folk sem mig til Reide reyter er jafnann fyrer minne Augsyn, þeir Offra j Grasgordum, og veyfa Reykelsenu yfer (a) Tigulsteinum.

(a) (Tigulsteinum) A þeim Olltorum sem þeir sioalfer giort hafa.

4. Þeir bua a medal Grafanna, og hallda sig j Holunum, eta Svijnakiot, og hafa herfeligt Juck j sijnum Elldsgognum.

5. Og segia, Vertu heima, og aahrær mig ecke, þviad Eg skal (b) Helga þig. Slijker skulu verda Reykur j minne Reide, sa Elldur sem allann Dag brennur.

(b) (Helga þig) Þad er, Þu Prophete þarft ecke ad kienna mier Heilogum ad verda, læt mig helldur helga edur læra þig hvornenn þu skallt Heilagur verda.

6. Sioa þu! þad stendur skrifad fyrer mier, Eg vil ei þeigia, helldur endurgiallda, Jaa, Eg vil giallda þeim þad aptur j þeirra Barm.

7. Bæde þeirra Misgiorder, og Misgiordernar Fedra þeirra til samans, seger DROTtinn, þeirra sem uppa Fiollunum hafa reykiad, og mig hafa vanvirdt uppa Hædunum, Eg mun mæla þeim aptur þad fyrra Athæfed j þeirra Barm.

8. So seger DROTTinn, Lijka so sem þa nær ed Logurenn finnst j Vijnberenu, og sagt verdur, Fordiarfa þad ecke, Þviad þar er Blessan jnne. So vil Eg og lijka eirnenn giora vegna minna Þionustu-Manna, ad Eg fordiarfe þad ecke alltsamann.

9. Helldur vil Eg ut af Jacob laata Sæde upp vaxa, og ut af Juda þad sem eignast mun mitt Fiall. Þviad mijner hiner Utvoldu skulu þad erfa, og mijner Þionustu-Menn skulu þar byggia.

10. Og Saron skal verda eitt Hus handa Hiordenne, og sa Dalurenn Achor ad Fiaarlegrum mijnu Folke, þvi sem Mijn leitar.

11. Enn þier, hvorier ed yfergiefed DROTtinn, og forgleymed mijnu Heilogu Fialle, og tilreided þeim (c) Gad eitt Matbord, og skeinked fullt a þeim *Meni af Dryckiar-Offrenu.

(c) (Gad, *Meni) Gad skal hafa vered Strijds Afgud, so sem Mars, þvi Gadad merker ad bua ut til Strijds. Meni merker Tolu, þad skal hafa vered Kaupmanna Afgud, so sem Mercurius, sem giarnann telur Peninga, A þetta slijngur hann, þar hann seger, Eg vil telia ydur til Sverdsins, sem hann segde; Eg vil faa ydur þad hier til Strijds utbua og telia þurfed.

12. Nu

12. Nu vel! Eg vil telia ydur til Sverds-
ins, so ad þier hliooted aller ad beygia ydur
til Sloatrunar. Af því ad Eg kallade, og
þier goafud ei Svar, ad Eg talade, og þier
heyrdud ecke. Helldur giordud þad hvad
mier lijkade illa, og utvoldud þad hvad mier
ecke þocknadest.
13. Þar fyrer seger DROTTinn DRot-
tenn so. Sioa þu! Mijner Pionar skulu eta,
Enn þier skulud Hungra. Sioa þu! Mij-
ner Pionar skulu drecka, enn þier skulud Þyr-
ster vera. Sioa þu! Mijner Pionar skulu
glader vera, enn þier skulud til Skammar
verda.
14. Sioa þu! Mijner Pionar skulu af
goodu Giede kiætast, enn þier skulud af Hiar-
tans Angre hroopa, og af Vesalldar-Eymd
æpa.
15. Og þier skulud loata ydvart Nafn mij-
num Utvoldum epter til (d) Eins Eids, og
DROTTinn DROTTinn mun svipta þig
Lijfenu, og nefna sijna Piona med odru
Nafne.

(d) (Eids) Til Epterdæmis eirnrar Bolvanar.

16. So þad, Hvor ed sig mun blessa a
Jordu sa mun blessa sig j þeim Sanna GUde.
Og hann hvor ed sveria mun a Jordu, sa mun
sveria vidur þann Sanna Gud. Þviad þær
hinar fyrre Anauðernar eru forgleymdar, og
eru byrgdar fyrer mijnum Augum.
III. 17. * Þviad, Sioa þu! Eg vil skapa
Nyann Himin og Nya Jord, so ad Menn
munu ei leingur minnast a þad fyrra, nie þad
uppa Hiartad leggia.

* 2 Pet. 3, 13. Opinub: B: 21, 1.

18. Helldur munu þeir gledia sig Eylijfle-
gana, og glader vera yfer þvi sem Eg skapa.
Þviad, Sioa þu! Eg vil giora Jerusalem til
Unadsemdar, og hennar Folk til Fagnadar.
19. Og Eg vil gladur vera yfer Jerusalem,
og gledia mig yfer mijnu Folke, Og þar skal
ecke leingur inne heyrd vera Raust Groatsins,
nie Raust Kveinunarinnar.
20. Þar skulu ecke meir þau Born vera,
sem ecke nae sijnum Dogum, edur þeir gam-
ler Menn sem ecke fullkomne sijn Aar. Hell-
dur (e) Unglingarner Hundrad Aara gamler
skulu deya, Og þeir Synduger sem eru Hun-
drad Aara skulu Bolvader vera.

(e) (Unglingarner Hundrad aara gamler) So kallar
hañ þa Ogudlegu, Sem Menn kynne ad segia, Þott
þu lifder j Hundrad aar, þa værer þu samt Barn,
Þott þu lifder j Hundrad aar, þa værer þu samt
Skalkur. Þad er, Þu villt alldrei hyggnast.
Eins Ordtæke er og þad, Ad nea sijnum Dogum, og
Uppfylla sijn aar, Þad er ad verda fromur og for-
siall.

21. Þeir munu Husinn uppbyggia og j
þeim bua, Þeir munu planta Vijngarda og
eta þeirra Avoxtu.
22. Þeir skulu þad ecke uppbyggia ad eirn
Annar bue þar j. Og ecke rootsetia þad eirn
Annar upp ete. Þviad Dagar mijns Folks
skulu vera so sem Dagarner eirnrar Eikar.
Og Verked þeirra Handa mun gamallt verda,
hioa mijnum Utvoldum.
23. Þeir skulu ecke erfida forgiefens, nie
otijmabæra Burde fæda. Þviad þeir eru
Sædid hinna Blessudu DROttins, og þeir-
ra Epterkomendur medur þeim.
24. Og þad skal skie, ad fyrr enn þeir kalla
þa vil Eg svara, a medan þeir eru enn nu ad
tala, vil Eg heyra. Ulfurenn og Lambid sku-
lu til samans sier Fædslu leita, Leoned mun
Gras bijta sem Naut, og Hoggormurinn skal
Jordena eta, þeir munu ecke neitt skada nie
fordiarfa, uppa ollu mijnu Heilogu Fialle,
seger DROTTinn.

# LXVI. Capitule.

Esajas talar (I) um Sanna Guds Dijrdkun; Og
(II) um þann Sijdarsta Doms-Dag.

I. Svo seger DROTTinn, * Himenenn
er minn Stooll, og Jordenn er mijn
Fotskor. Hvada Husi er þad þa, ed þier vi-
lied mier uppbyggia? Eda hvor er sa Sta-
dur, þar Eg skule hvijlast?

* Gioru: B: Post: 7, 49. c. 17, 24.

2. Mijn Hønd hefur giört allt þad, hvad þar er, seger DROTTenn. Enn Eg ꜳlyt þann hinn Fꜳtæka, og þann sem hefur sundur knosadann Anda, og þann ed hrædest mijn Ord.

3. Þviad, hvør hann slꜳtrar Naute, þad er jafnt sem hann slæe Mann ihel, Hvør hann offrar einum Saud, þad er sem hann hꜳlsbryte Hund, Hvør hann færer Matar-Offur, þad er sem offrade hann Svijna Blode. Hvør ed minnest þess Reykelsis, þa er sem lofe hann (a) Oriettindenn. Svoddann utvelia þeir j sijnum Vegum, og þeirra Sꜳla hefur Giedþeckne a þeirra Svijvirdingum.

(a) (Oriettindenn) Þad er Skurgodadijrdkan:

4. Þar fyrer vil Eg eirnenn utvelia þad sem þeir spotta, og þad hvad þeir hrædast vil Eg lꜳta yfer þa koma. Af þvi, ad Eg kallade, og eingenn svarade, ad Eg talade, og þeir hlyddu þvi ecke, og giördu hvad mier jlla lijkade, og utvøldu þad hvad mier þocknadest ei.

5. Heyred Ord DROTTins, þier sem hrædist hans Ord! ydrer Brædur sem ydur hata, og þeir ed j burt skilia ydur fra sier, fyrer mijns Nafns Saker, Og segia (b) (Lꜳttu siꜳ, Hvørsu Dijrdarsamlegur DROTTenn er! Lꜳt hann opinnberast til ydvarar Glede!) Þeir hiner sømu skulu til Skammar verda.

(b) (Lꜳttu siꜳ) Þeir Ogudlegu bioda Christo Trꜳss, so visser eru þeir um sinn Heilagleika.

6. Þviad þar mun heyrast Rꜳust eins Gnys j Borgenne, Ein Rꜳust af Musterinu, Ein Rꜳust DROTTins, sem endurgielldur sijnum Ovinum.

7. (c) Hun verdur liettare, ꜳdur enn hun tekur Sottena. Hun er hraust ordenn epter Sveinbarn, ꜳdur enn hennar Jood-Sott kiemur.

(c) (Hun fæder) Þad eru Undur, lijka sem talade eg so, Hun fæder ꜳdur enn hun verdur þungud, Lijka so eirnenn hier, ꜳdur enn hun tekur Sottena, þad er, Hun fæder og hefur þo øngva Jood-Sott, eins og hun være ei þungud.

8. Hvør hefur nockurn Tijma heyrt soddan? Hvør hefur nockurn Tijma sied slijkt, Hvørt kann nockud Folked under eins fædt ad verda ꜳdur enn Landed tekur Sottena? Nu hefur þo Zion fædt sijn Børn fyrer utann Siukdom.

9. Hvørt skyllda Eg þa lꜳta adra opna Modurkvidenn, enn sialfur ecke eirnenn fæda, Seger DROTTinn? Skyllda Eg lꜳta adra fæda, og sialfur Obyria vera, seger þinn GUD?

10. Glediest ydur med Jerusalem, og vered glader yfer henne, þier aller sem hana elsked, fagned medur henne, þier aller sem hrigger vorud yfer henne.

11. Þviad þar fyrer skulud þier siuga, og sadder verda, af Briostum hennar Huggunar. Þier skulud þar fyrer siuga, og ydur endurlijfga, ut af þeirre Gnægdenne hennar Dijrdar.

12. Þviad so seger DROTTinn, Siꜳed! Eg utbreide Fridenn hiꜳ henni, lijka sem annad Vatnsfall, og Dijrdena Heidingianna, so sem annann yferfliotanda Vatnslæk, Þa munud þier siuga. Þier skulud a Hlidenne Borner verda, og j Kniꜳnum munu Menn ydur hallda.

13. Eg vil hugga ydur, lijka so sem þad einhvørn huggar hans Moder. Jꜳ, þier skulud j Jerusalem endurnærder verda.

14. Þier munud siꜳ þad, og ydvart Hiarta mun gledia sig, og ydar Bein skulu blomgast sem annad Gras, þa mun þeckiast Hønd DROTTins a hans Þionum, og Reidinn a hans Ovinum.

II. 15. Þvi siꜳed! Ad DROTTinn mun koma med Ellde, og hans Vagn sem annad Storm-Vidre, þad hann endurgiallde j Grimmd sinnar Reide, og hans Straff j Elldsins Loga.

16. Þviad DROTTinn mun fyrer Elldenn, og fyrer sitt Sverd dæma allt Holld, og þeir hiner Lijflꜳtnu af DRottne munu marger vera.

17. Þeir ed sig helga og hreinsa j þeim Gras-

Grasgordunum, Eirn hier, enn Annar þar, og eta Svijna Kiøt, Andstyggd og Mys, Þeir skulu til samans j burt svipter verda, seger DROTTinn.

18. Þviad, Eg vil koma og samannsafna þeirra Verkum, og Hugrenningum, aasamt med øllum Heidingium og Tungumaalum, so ad þeir kome og siaae mijna Dijrd.

19. Og Eg mun giefa eitt Teikn a medal þeirra, og nockra ut af þeim sem frelsader eru senda til þeirra Heidinu vid Siaafar-Hafid til Phul og Lud, til Bogmannanna, til Thubal og Javan, og langt j burt til Eyanna, þar Menn hafa ecke neitt ut af mier heyrt, og þeir ed ecke hafa sied mijna Dijrd, og þeir skulu kunngiora mijna Dijrdar-Vegsemd a medal Heidingianna.

20. Og þeir munu alla ydra Brædur ut af øllum Heidingium hier til leida, DROTTne til Matar-Offurs, a Hestum og Vøgnum, a Børum, a Mulum og Hláup-Dyrum, til Jerusalem, til mijns Heilaga Fialls, seger DROttenn. Lijka so sem Israels Børn færa sijnar Matarforner, j hreinum Føtum til Huss DROTTins.

21. Og Eg vil ut af þeim sømu taka Kiennemenn og Levita, seger DROTTinn.

22. Þviad so sem sa Nye Himenenn og su hin Nya Jørdenn, sem Eg giøre, standa fyrer mier, seger DROTTenn, Lijka so skal eirnenn ydart Sæde og Nafn standa.

23. Og allt Holld mun eirn Maanud epter annann, og eirn Sabbaths-Dag epter annann, koma til ad til bidia fyrer Mier, seger DROTTinn.

24. Og þeir munu utganga, og siaa Lijkame þess Folks, sem misgiort hefur vid mig. * Þviad þeirra Madkur mun ei deya, og þeirra Elldur mun ei utslockna, og þeir munu øllu Hollde ad Andstyggd verda.

* Marc 9, 43. 45. 47.

Ending Prophetans Esaiæ.

# Formaale yfer Bookena Jeremias.

Ad skilia þa Spaadomana Prophetans Jeremia, þarf eige mikellrar Glosserunar vid, ef vel verdur ad eins giætt ad þvi, Hvad vid hefur børed a Døgum þeirra Konganna, a hvørra Æfe ad hann hefur Predikad. Þviad so sem þad hefur þa i þad Sinn tilbored j Landenu, lijka so þa ganga og eirnenn hans Predikaner til.

J firstu þa var Landed fullt af Synd og Skurgodadijrdkan, þeir Lijflietu Spaamennena, og villdu sijnar Synder og Afgudadijrdkaner ostraffadar hafa. Þar fyrer þa er og eirnenn sa hinn firste Parturenn hier framan af, hin mesta Deilld, ecke utann Stroffun og Akløgun yfer Illsku-Verkum Gydinganna, allt til hins Tuttugasta Capitula.

J Annare Grein, Þa spaaer hann eirnenn fyrer þeirre Hefndar Refsingunne, sem þa var fyrer Høndum, einkum sem var þeirre Foreydslunne og þvi Nidur-brotenu Jerusalem Boraar, og alls Gydingalands, og þeirrar Babyloniskú Herleidingarennar. So lijka og eirnenn þær Hegningar og Straffaner allra Heidingia. Og þar jafn framme þa hugsvalar hann þeim, og tilseiger i vissann tileinkadann Tijma, epter soddann Hegning skieda, þa Frelsunnena, og Heimkomuna j Landed-aptur, og til Jerusalem, etc. Og þesse Maalshaattur er tijdastur, og einkanlegastur j þessare Spaadoms Book Jeremia. Þviad þess hans sama vegna er Jeremias hellst til sijns Embættis kraddur. So sem þesse Syninn j þeim hinum Firsta Capitula utvijsar af þeim Vakanda Stafnum, og Siodanda Pottenum, sem af Nordrenn koma.

Og þad var og eirnenn miøg Naudsynlegt, Þvi first þad ein svoddann hrædeleg Plaaga skyllde koma yfer Folked, So ad þad skyllde þa utflytiast, og med øllu j burt slited verda, hvort fra ødru ur sijnu Lande, ellegar hefdu þeir Godhiartader Menn, sem var Daniel, og marger adrer, maatt hafa so sem nockra Efablendne a Guds Lofan og hans Fyrerheitum, so sem ad hefde þeim ecke maatt annad til Hugar koma, enn þad være nu med øllu utgiørt, og

þeir j fra Gude giørvalldleganna j burt rekner, so þad alldreige munde nu leingur neirn Christur DROTTins koma. Helldur þad Gud hefde fyrer Folksins Synda Saker j mikille Reide siin Fyrerheit apturtekid. Af þvi hlaut Jeremias þar naalægur ad vera, og þeim þessa Hegning og Reide so ad kunngiøra, ad þeir skylldu ecke Eylijfleganna yfergiefner vera, helldur ad eins um Stundarsaker, sem var um tileinkadann Tijma j Siøtyge Aar. Og so sijdann þar eptera til Naadarennar aptur ad koma. Med hvøriu Fyrerheite hann hefur og eirnenn hloted ad hugsvala siaalfum sier, og ad hughreysta sig so þar med, Enn annars Kostar þa hefur hann ecke siaalfur mikla Hugsvalan nie hier j Heime marga goda Daga haft.

Þoiad hann hefur nærsta Hriggelegur og Forsmaadur Prophete verid, og hefur lifad a hriggelegum Illskufullum Tiima, þar ad auk hefur hann frammflutt ofur þungt, og eitt frabærlegt Predikunar Embætte. Hvør ed hlotid hefur j full Fiørutyge Aar ad sijsla og Orda-Deilur ad eiga, allt til Herleidingarinnar, vidur Þraalynda, Illskufulla og Hardsvijrada Menn, og þo litlum godum Avexte vidur þessa til Vegar komid. Helldur sied siaalfur a þad, ad þeir urdu einatt verre og verre, og allt jafnt þa villdu þeir j Helslaa hann, og løgdu hønum margar Meinsemder til, þar ad auk, hefur hann hlotid ad lifa, og med sijnum Augum ad sia þa Foreydsluna Landsins, og Herleidingena Folksins, og margar adrar miklar Anauder, og hrædelegar Blods-Uthellingar. Umfram þad, hvad hann hefur hloted þar eptera ad lijda, j Egyptalande, og þeim þar ad Predika, þvi sumer hallda þad, ad hann hafe af Gydingunum j Egyptalande, medur Griote til Heliar barenn vered.

J Þridiu Grein giører hann eirnenn lijka, eins og adrer Prophetar, og spaaer fyrer ut af Christo, og hans Rijke, sierdeilis j þeim Tuttugasta og Þridia, og Þritugasta og Firsta Cap: Þar ed hann nærsta skilmerkeleganna seiger fyrer ut af Personunne Christi, af hans Rijke, af þvi Nya Testamentenu, og af þeirre Endingunne þess GamlaTestamentisins, enn þesser þrenner Partarner standa ecke so samfilgiande hvør epter annann, og eru ecke so fraskilder hvør ødrum j Bokinne, lijka sem ad þeir hafa skied til j Giørningenum og Atferlenu hvør epter annann. Jaa j þeim Fyrra Partenum stendur optsinnis þad, hvad j þeim epterfilgiande Capitulanum hefur tilborid. Hvad hellst ad hefur þo aadur skied, fyrre enn þad sama sem j þeim Firra Capitulanum skrifad stendur, lijka sem ad laate þad so aasiast, ad Jeremias hafe ei siaalfur þessa Book til samans lesid, helldur þad hun sie so j Pørtum epter hans Ordrædu til samans sett, og j eina Book uppteiknud, þar fyrer þurfa menn ecke ad giefa sier neitt Far ad þvilijkre Hegdan soddann Maalsgreina.

Enn ut af Jeremia lærum vier þetta a medal annara Hluta, Hvorsu tijdt þad er, ad þvi naalægare sem þad Hefndar Refsingenn er, þvi Argare þa taka menn ad giørast, og þess framar sem þad verdur fyrer þeim Predikad, þvi meir þa fyrerlyta þeir þad hid sama, so þad er naalega Mønnum þreifanlegt, nær ed Gud vill þad Hefndar-Refsingenn skule yferkoma, þa taka menn miøg Forsuger og Ofurdaaduger ad giørast, ad þeir meige þvi helldur vægdarlaust afmaader verda, og medur øngre Yferbot vidur Guds Reide forlijkter vera. Eins og þad eirnenn þeir til Sodoma og Gomorra, hlutu aadur fyrer framm, ad forsmaa og fyrerlyta þann godfusa Mann Lot, þvi þa ed hann kiendi þeim godar Kienningar, giordu þeir hønum þar illt aptur a moot. Enn þeirra Hefndar Refsing var þa þo fyrer Dyrum ute, so lijka Pharao, þa ed ad þeim Tijma var komed, ad hann skyllde dreekiast j Hafenu Rauda, þa hlaut hann aadur Tvefalldar Nauder Israels Børnum til ad leggia. Og Jerusalem hun hlaut eirnenn aadur fyrer framm ad Krossfesta Guds Son siaalfann, þa ed hennar endileg Foreydsla og Nidur Brotvok ad naalægast.

Lijka so geingur þad nu alla Vegana til a þessum Tijmum, first þad Endingenn Veralldarennar tekur nu ad naalægiast, þvi styggiast Menn miøg, og Olmast upp a moote Gude, Lasta, Nyda og Fordæma Guds Ord hid allra-herfelegasta, hvørt ed þeir þo vijsvitande openberlega medkienna, ad þad hid sama sie Guds Ord, og siaalfur Sannleikurenn. Þar jafnframme byrtast og anglysast so mørg hrædeleg Teikn, og furduleg Undur, bæde a Himnenum, og so a øllum ødrum Skiepnum, hvør ed þeim syna so hriggilega Ognan epterkomande Æfe, so ad þesse Veralldar Æfenn er ein Hørmuleg og Eymdarfull Æfe, og enn hriggelegre enn þad Jeremias Æfe hun var. Enn þad hlytur og vill so vera, ad þeir Illsku Dolgar verde athugalauser, og synge med siaalfum sier, þad sie Pax, og þad hafe nu øngva Neyd. Og ysfækia so allt þad, hvad ed Gud DROTTinn vill ad vera skule. Og fyrerlyta so alla Ognan þeirra Teiknanna, þangad til ad su Fordiørfunenn kiemur miøg skyndelega yfer þa, epter þvi sem Paall Postule hann seger. Og foreyder þeim so, aadur enn þa varer þess. Enn Christur hann mun þo vel vardveita siina Astvine, fyrer hvørra Saker hann lætur nu hellst sitt Ord upplysa a þessare so Herfelegre Æfe: Lijka so sem þad hann j Babylonia vardveitte Daniel, og adra fleyre hans Fielaga, fyrer hvørra Saker þad Jeremias hlaut ad auglysast. Þeim hinum sama Eilijfulegum DROTTne sie Løf, Þacker og Dijrd, med Fødur og Heiløgum Anda, þeim Einka Gude yfer Øllum Hlutum, nu og ad Eylijfu, Amen!

Prophe-

# Prophetenn Jeremias.

## I. Capitule.

Jeremiæ (I) Køllun er stadfest (II) med Tveimur Sionum (III) hønum til Hugar-hreyste, til ad gangast under þad Spaamannlega Embætte.

I. Þesse eru Ord Jeremia, Sonar Hilkia, ut af þeim Kiennemønnum til Anathoth, j BenJamins Lande.

* Jeremias hoof upp sijna Predikun a Þrettanda aare Josia, Sex Hundrud og Siu aarum fyrer Hingadburd Christi, og spaade allt framm yfer þa Babylonisku Herleidingu.

2. Til hvørs ad skiede Ord DROTTins, j Tijd Josiæ Sonar Amons, Kongsins Juda, a þvi hinu Þrettanda aare hans Kongs Rijkes.

3. Og þar eptera, j Tijd Kongsins Juda Joakims, Sonar Josia, allt til Enda þess Elefta aarsins Zedekia, Sonar Josia, Kongsins Juda, allt til Herleidingar Jerusalem, a þeim Fimta Maanade.

4. Og Ord DROTTens þad skiede til mijn, Og sagde,

5. Eg þeckta þig aadur enn þad Eg tilbio þig j Modurkvide, og adskilde þig, fyrre enn þad þu varst fæddur af Modurinne, og setti þig til Spaamanns medal Folksins.

6. Enn Eg sagde, Oho DROTTenn DROTTenn! eg duge ecke til ad predika, þviad eg er of Ungur.

7. Enn DROTTENN sagde til mijn, Seg þu eige, Eg er of Ungur, helldur þu skalltu fara burt þangad sem Eg sende þig, og predika þad hvad Eg byd þier.

8. Vert ecke hræddur vid þa, þviad Eg em j hia þier, og Eg vil frelsa þig, seger DROttenn.

9. Og DROTTinn riette ut sijna Hønd, og ahrærde minn Munn, og sagde til mijn, Sia þu! Eg legg mijn Ord j þinn Munn.

10. Sia þu! Ad Eg set þig a þessum Deige yfer Pioder og Kongarijke, so ad þu skallt upp slijta, j sundur briota, j (a) eydeleggia, og fordiarfa, og uppbyggia, og groodursetia.

(a) (Eydeleggia) Ecke med Vallde, nie Bardaga, helldur med Predikun og Fyrersøgn. Inf. 18, 7.

II. 11. Og Ord DROTTins þad skiede til mijn, og sagde, Jeremia! Hvad sier þu? Eg sagde, Eg sie eirn Vakande Staf.

12. Og DROttinn sagde til mijn, Þad hefur þu riett sied, þviad Eg vil vakande vera yfer mijnu Orde, so ad Eg giøre þad.

13. Og Ord DROttins þad skiede til mijn j annad Sinn, og sagde. Hvad sier þu? Eg sagde, Eg sie eirn Siodande Pott af Nordrenu.

14. Og DROTTinn sagde til mijn, Af Nordrenu mun Olucka ut briootast, yfer alla þa sem j Landenu bua.

15. Þviad sia þu, Eg vil til samans kalla alla Høfdingiana j Kongarijkiunum moote Nordrenu, seger DROTTinn, So ad þeir skulu koma, og setia sijna Stoola fyrer Borgarhlidunum til Jerusalem, Og umhverfes kringum Murveggena, Og fyrer øllum Stødum j Juda.

16. Og Eg vil laata Riettenn ganga yfer þa, fyrer Saker allra þeirra Illgiørne, ad þeir yfergiefa mig, og giefa Reykelse annarlegum Gudum, og tilbidia sijn Handaverk.

III. 17. So umgyrdtu nu þijnar Lendar, og gior þig reidubuenn til ad predika þeim allt þad hvad

hvad Eg skipa þier. Ottast þu ecke, so sem
ad skyllda Eg fraskielfa þig.
18. Þviad Eg vil j Dag giora þig ad eirn-
re Oruggre Borg, ad einum Jarn-Stolpa, ad
Kopar-Mur j ollu Landenu, j giegn þeim Kon-
gunum Juda, j giegn þeirra Hofdingium, j
giegn þeirra Kiennemonnum, j giegn þvi Fol-
kenu Landsins.
19. So þo ad þeir strijde a moote þier, þa
skulu þeir þo ecke yfervinna þig, Þviad Eg em
hiaa þier, seger DROTTinn, ad Eg frelse
þig.
20. Og Ord DROttins þad skiede til
mijn, og sagdi.
21. Far þu og predika opennberlegana til
Jerusalem, Og seg þu, So seger DROT-
Tenn, Eg minnist a þad þa þu varst ein liufleg
ung Meya, og ein elskuleg Brudur, Þa ed
þu filgder mier j Eydemorkenne, j þvi Landenu
sem Menn ongvu saadu.
22. Þar ed Jsrael var Eign DROTTins,
og hans Firste Avoxtur, Hvor sem ad villde
hann uppeta, sa hlaut fyrer Skulldu ad verda,
og Ogiæfann hlaut yfer hann ad koma, seger
DROTTinn.

## II. Capitule.

Jeremias talar um Misgiorder Gydingalyds moote Gode Drottne, sem hefde miog og margvijslega giort vel vid hann.

Heyred Ord DROTTins, þier af Huse
Jacobs, og þier allar Kinkvijsler af
Huse Jsraels!
2. So seger DRottenn, Hvorn Brest hafa
ydar Forfedur funded a mier, ad þeir j burt
viku so fra mier, og aahiengu þeim Onytum Af-
gudum, af þeim þo er þeir odludust ei neitt?
3. Og hugleiddu þad ecke nie einusinni,
Hvar er Sa DRottenn, sem oss hefur ut flutt
af Egyptalande, Og leiddtogad oss j þeirre Ey-
demorkenne, j þvi Eyde og Ovega Lande, j
þui þurra og mirkva Landenu, J þvi Landenu
sem eingenn fer yfer, og eingenn Madur byr?
4. Og Eg flutte ydur jnn j eitt gott Land,
so ad þier skylldud neyta þess Avaxtar og
Landgiæda, Og þa ad þier komud þar jnn
Saurgudud þier mitt Land, og gierdud mij-
na Arfleyfd ad Svijvirdingu.
5. Prestarner hugsudu ecke, Hvar er
DROTTinn? Og þeir hiner Lærdu skeyttu
ecke um mig, og Hyrdararner burt leiddu
Folked fra mier, og Prophetarner spaadu ut
af Baal, og aa-hiengu þeim Onytum Af-
gudum.
6. Eg hlyt alltiafnt ad þraatta vid ydur,
og vid ydar Barna-Born, seger DRottinn.
7. Fared burt j þær Eyarnar Chithim,
og hygged ad, og sended til Kedar, og mer-
ked med At-hygle, og sioaed Hvort ad þar gein-
gur so til.
8. Hvort þad hiner Heidnu giora Umskip-
te a sijnum Gudum, þo ad þad sieu ecke
neiner Guder? Og mitt Folk hefur þo um-
skipt sinne (a) Dijrd j eirn Onytann Afgud.

(a) (Dijrd) Þad er sijnum Gude.

9. Himenenn skyllde þo grua þar fyrer,
hrædast og miog skielfast, seger DROTTinn.
10. Þviad mitt Folk þad giorer eina
tvofallda Synd, Mig, þa Lifande Uppspret-
tu, yfergiefa þeir, og giora sier hier og þar
uthoggna Brunna, sem þo eru leker, og hall-
da ecke Vatnenu.
11. Hvort er þa Jsrael eirn Þion, edur
eirn Þræll, þad hann hlytur ad vera hvors
Manns Herfang?
12. Þviad Leonenn þau grenia yfer ho-
num, og hryna, og foreyda hans Land, og
uppbrenna hans Borger, so ad eingenn byr
þar jnne.
13. Ad auk þessa, þa sundur sloa þeir af
Noph, og Thachpanhes þitt Hofud.
14. Soddan þa giorer þu þier sioalfur,
Af þvi þu yfergiefur DROTTinn Gud
þinn, so opt sem þad hann vill leida þig a
riettann Veg.
15. Hvad hioalpar þad þier, ad þu fer j
Egyptaland, og villt (b) drecka þad Vatned
Sihors,

Sihors, og hvad hioalpar þad þier, ad þu fer burt j Assyriam, og villt drecka þad Vatn Phrath?

(b) (Drecka) Þad er, Ad leita Styrks oan Guds hia Pharaone Kouge og Assyrianiskum.

16. Þvi velldur þijn Illgyrne, ad þu verdur so hudstryktur, og þijn Ohlydne ad þu þannenn straffast. So hlytur þu ad sea ad vita og formerkia, hvoria Eymd og Hiartans Angur þad giorer, ad yfergiefa DROttinn Gud þinn, og ad oottast hann ecke, seger DROTTinn, Sa DROTTinn Zebaoth.

17. Þviad þu hefur allt- jafnt þitt Ok j sundur broted, og þijn Bond j sundur slited, og sagt, Eg vil ecke þannenn undergiefenn vera, helldur hliopstu uppa allar hoasar Hæder, og under oll blomgud Trie, epter Hooranenne.

18. Enn Eg hafde þig plantad til eins sætlegs Vijnvidar, eitt nærsta velskickad Sæde. Hvornenn ertu þa vordenn fyrer mier ad einum Beiskum Ville-Vijn-Vid?

19. Og nu, þo ad þu þvæger þig med Lut, og tæker þar mikla Soapu til, þa birtest þo þess meir þijn Odygd fyrer mier, seger DROTTinn DROTTinn.

20. Hvornenn dyrfest þu þa ad segia, Eg er ecke saurugur, Eg oaheing ecke Baalim? Hygg ad, hvad þu hefst ad j Dalnum, og hugleidtu ad, hvornenn þu hefur þvi af Stad komed.

21. Þu hleypur um kring sem onnur Ulfallds Fylia j Bruntijd, og sem annad Skogdyr er vant j Eydemorkenne, nær ed þad af storum Gyrndarbruna gaper og hleypur, so ad eingenn fær þvi aptur hallded, hvor ed þad vill vita sa þarf ecke langt ad leita, a Helgedogum siest þad vel.

22. Kiære (c) stodva þig! og hlaup ecke þinn Foot moodaun, edur þinn Hoals þyrstann, enn þu seger, Skyllde þad vera utgiort? Nei ongvanneigenn, Eg hlyt vidur þa annarlegu oast ad leggia, og epter þeim ad hlaupa.

(c) (Stodva þig) Þad er, Hlijf þijnum Footum, ad þeir verde ecke nakter, og þijnum Hoalse, ad hann verde ecke þyrstur.

23. Lijka sem annar Þiofur hann verdur til Skammar, nær ed hann verdur gripenn, Eins lijka so mun Israels Hus til Skammar verda, oasamt med sijnum Kongum, Hofdingium, Prestum og Prophetum.

24. Þeir ed til Triesins segia, Þu ert minn Fader, og til Steinsins, Þu hefur fædt mig. Þvi þeir snua Bakenu vid mier, og ecke Andlitenu, Enn nær ed Neydenn yfer geingur, þa segia þeir, Upp þu! og hioalpa oss.

25. Enn hvar eru þa þijner Guder, sem þu hefur giort þier? Bid þu þa upp ad standa, Loattu sioa hvort ad þeir kunna ad hioalpa þier j Neydenne. Þvi þu Juda! hefur so marga Gude sem þu hefur Borger.

26. Hvort vilied þier enn hafa riett a mote Mier? Þier erud aller fra mier af-fallner, seger DROttinn.

27. Allar oalogur vid ydar Born eru til forgiefens, þau loata þo ei helldur menta sig, af þvi ad ydart Sverd uppsvelger lijka eirnenn ydar Propheta, so sem annad grimmdarfullt Leon.

28. Þu hin vonda Ætt! Giættu ad Orde DROTTins, Hvort er Eg vordenn Israel til eirnrar Eydemerkur, edur til eins Eydelands, Hvar fyrer seger þa mitt Folk? Vier erum Herrarner, og meigum ei hlaupa epter þier.

29. Ein Jomfru forgleymer ei sijnu Skarte, og eige helldur ein Brudur sijnu Hofud-Silfre, enn mitt Folk þad forgleymer mier Æfinlega.

30. Hvar fyrer pryder þu þinn Giorning so miog, ad Eg skule þier Miskunsamur vera? Under þeirre oasynd þa fremur þu æ þess meire Illgyrne.

31. Þar ad auk, þa finnst eirnenn hioa þier Bloded Foatækra og Saklausra Soalna, j ollum Stodum, og er ei heimuglegana, helldur openberlegana j þeim somu Stodum.

32. Þo seger þu samt, Eg er saklaus, Hann snue sinne Reide j fra mier. Sioa þu, Eg vil ganga j Doom vid þig, ad þu seger, Eg hefe ecke syndgast.

33. Hvar fyrer fravijkur þu so giarnann, og dettur so hingad og þangad? Enn af Egyptalande muntu til Skammar verda, so sem þu ert af Assyria til Skammar ordenn

34. Þviad þu hlytur eirnenn j burt þadann fara, og sloa þijnum Hondum til samans yfer þijnu Hofde. Þviad DROttinn nun loata þijna Von bregdast, og hioa þeim mun þier ecke vel Luckast, Og seger.

35. Nær ed Madurenn lætur skilia sig vid sijna Eignar Konu, og hun fer j burt fra honum, og tekur eirn annann Mann, þorer hann þa nockud ad taka vid henne aptur? Er eige so, ad þa yrde Landed saurgad. Enn þu hefur Hooraner drijgt med morgum Elskhuga, Kom þu þo samt aptur til mijn, seger DROTTinn.

36. Upplyptu þijnum Augum til þeirra Hædanna, og giæt ad þvi! Hvornenn þu drijger Hooraner alla vega. Vid Veigenn situr þu, og tekur Vara a þeim, Lijka sem eirn Arabiare j Eydemorku, og saurgar Landed med þinne Hooran, og Illsku.

37. Þar fyrer skal og eirnenn Morgun-Regnid vera j burtu, og ei neiner Kvollds-Skurar koma.

38. Þu hefur eirnrar Hoorkonu Enne, þu villt eige leingur þijn skammast, og kallar þo lijka samt til mijn, Kiære Fader, þu Meistare mijns Ungdoms!

39. Villtu þannenn reidast alla Æfena, og loata ecke af Grimmdar-Heiptenne? Sioa þu, þu kienner og giorer illa, og lætur ecke roada vid þig.

## III. Capitule.

*Jeremias talar (I) um Israels Villu i þvi, ad hiona Afgudum; og (II) um þeirra Jatning fyrer Gude DRottne.*

1. Og DROTTinn sagde til mijn, j Tijd Kongsins Josia. Hefur þu og sied hvad Su hin Frafallna Israel giorde? Hun gieck j burt uppa oll hin hoau Fiollinn, og under oll blomgud Trie, og drijgde þar Hooraner.

2. Og Eg sagde, þa ed hun hafde giort allt þetta. Snu þier til mijn, enn hun snere sier ecke. Og þott ad hennar Hin Forhardnada Syster Juda sæe,

3. Hvorsu ad Eg straffade þær Hooraner hinnar Frafollnu Israel, og þad Eg forliet hana, og gaf henne Skilnadar-Skroa, þo hræddest hennar Forhardnada Syster Juda þad ecke ad helldur, helldur gieck hun i burt, og drijgde eirnenn lijka Hooraner.

4. Og ut af hennar Hoorunar Hoa-Hlioodan er Landed saurgad, þvi hun drijgde Hooraner vid Steina og Stocka.

5. Og j ollu þessu þa snere sier ecke hennar hin Forhardnada Syster Juda til Mijn, af ollu Hiarta, helldur voru þad ecke utann Læte hennar, seger DROttinn.

6. Og DROttinn sagde til mijn, Hin Frafallna Israel er god, framar enn su hin Forhardnada Juda.

7. Far burt og predika so j moot Nordrenu, og seg, Snu þier Þu hin Frafallna Israel! seger DROTTinn, þa vil Eg ecke loata mijna Reide koma yfer ydur, þviad Eg em Miskunsamur, seger DROttinn, og vil ecke reidast æfenlega.

8. Vidurkienn þu ad eins þinn Misgiorning, ad þu hafer syndgast a moote DRottne Gude þijnum, og hlauped hingad og þangad til annarlegra Guda, under oll blomgud Trie, og þu hefur ecke viliad heyra mijna Raust, seger DROTTinn.

9. Þier hin frafollnu Born, Snued ydur, seger DROTTinn, þviad Eg vil trulofa mig ydur, og Eg vil sækia ydur, eirn af hvorre Borg, og tvo af hvorium Ættlegg, og Eg vil jnn leida ydur til Zion.

10. Og Eg vil giefa ydur Hyrdara epter mijnu Hiarta, sem ydur skulu fæda med Kienningunn og Vijsdome.

11. Og

11. Og þad skal ske þa, nær ed þier erud upp vaxner, og marger ordner j Landenu, þa skal j þann Tijma (seger DROttinn) ecke meir sagt vera af Sattmaals Orkenne DROTTins, og Menn munu hana ecke meir hugleida, nie þar af Predika, nie hennar vitia, nie leingur þar Forner fæza.

12. Helldur j þann sama Tijma þa skal Jerusalem kallast Tignar-Sæted DRottins, og aller Heidingiar skulu samansafna sier þangad til Jerusalem, fyrer Saker þess Nafnsins DROTTins. Og þeir munu ecke leingur ganga epter þeirra sialfs vondum Hiartans Hugrenningum.

13. A þeim Tijma mun Hused Juda ganga til Hussens Israels, og munu so koma hvort med odru af Nordrenu, jnn j þad Landed sem Eg gaf ydar Forfedrum til Arfsoku.

14. Og Eg tilsege þier, Hvornenn vil Eg giefa þier so morg Born? Og þad gooda Landed, þa fogru Arfleifdena, sem er Heidingianna Her? Og Eg tilseige þier, ad þu skallt þa kalla mig liufann Fodur, og j burt vijkia ecke fra mier.

15. Enn Hused Israels skeyter mier ecke, lijka sem su Kvinna sem ecke sæter sijnum Astmanne leingur, seger DROTTinn.

16. Þar fyrer munu Menn heyra aumlega Kveinan og Graat Israels Barna, a þeim Upphædunum, fyrer þad þeir giordu illa, og forgleymdu DROttne Gude sijnum.

17. So snuest nu aptur, þier hin Frafollnu Born! þa vil Eg lækna ydur, utaf ydvare Ohlydne. Sia þu! Vier komum til þijn, Þviad Þu ert DRottinn GUD Vor.

18. Sannarlega, Þad er ecke utann Svikræde med þær Hædernar, og med oll Fiollenn. Sannarlega, Þa hefur Israel öngva Hiaalp, utann af DROTTne Vorum GUde.

19. Og þad (a) Erfided Fedra vorra, sem vier hofum hallded Ungdom vorn af, þad hlytur med Vanvirdu ad fyrerfarast, asamt medur þeirra Saudum, Nautum, Sonum og Dætrum.

(a) (Erfided) Þad er, Þeirra Stiftan og Guds Þionustugiord, edur Afgudadijrdkan, hvar uppa þeir erfidudu miked.

II. 20. Þviad þad hvad vier vonudum uppa, þad er oss nu til Skammarennar eirnrar, og a þvi, hveriu vier hofum vort Traust, þess hliotum vier nu ad skammast vor. Þviad vier syndgudunst þar med a mote DRottne GUde vorum, bæde vier og vorer Forfedur, j fra Barndome vorum, allt jnn til þessa Dags, Og hlyddum ecke Raustenne DRottins GUds vors.

# IV. Capitule.

Jeremias (I) Rædur Israel ad Idrast; Og (II) Bodar Foreydslu Gydinga Lands.

I. Villtu snua þier Israel, seger DROttinn, þa snu þier til Mijn. Og ef þu villt burt taka þijna Svijvirding fra mijnu Auglite, þa skall:u ecke utdrifenn verda.

2. Þa muntu og sveria Hræsneslaust, Riettvijslega, og Heilaglega, (So Sannarlega sem DROTTinn lifer) og hiner Heidnu munu j honum Blessader verda, og hroosa sier af honum.

3. Þviad so seger DROTTinn til þeirra j Juda og Jerusalem, Plæged ad nyu, og saaed ecke a medal Þyrnanna.

4. Umskiered ydur fyrer DROttne, og burt taked Yferhudena ydvars Hiarta, Þier Menn j Juda, og þier sem bued j Jerusalem! Uppa þad ad mijn Reide skule ecke ut fara sem Elldur, og brenna, so ad eingenn kunne ut ad slockva, fyrer ydar Illsku Saker.

II. 5. Þaa (a) kunngiored þad j Juda, og kalled hatt j Jerusalem, og seged. Blaased j Herludra j Landenu, kalled med fullum Hlioodum, og seged. Samansafned ydur, og laatum oss fara jnn j þær sterku Borgernar.

(a) (Kunngiored) Þegar Elldurenn ætlar ad kvikna, og þier hafed ecke giort Betrun, þa vill þad ecke hafa upp a sig ad þier herklædest.

6. Setied upp Merked j Zion, Safned ydur

dur til samans og dvelied ei vid. Hviad eg flyt eina Ogiæfu, og stoora Eymd, hingad fra Nordrenu.

7. Pad Leoned kiemur, farande hingad ur sijnum Buska, og sa Fordiarfarenn Heidingianna er utfarenn af sijnum Stad, ad hann foreyde þitt Land, og uppbrenne þijna Stade, so ad eingenn bue j þeim.

8. Þar fyrer jklædest Seckium, Syrged og Syted, Hviad su Grimmdar-Reide Drottins vill ecke stillast yfer oss.

9. A þeim Tijma skulu Hiortunn Kongan-na og Hofdingianna blaud verda, seger DROTTinn, Prestunum skal ofbioda, og Prophetarner hrædast.

10. Enn eg sagda, O DRottinn! Drottinn! miog hefur þu loated þessu Folke, og Jerusalem, þad bregdast, þa þeir sogdu, Þar mun hiaa ydur Fridur vera, og Sverded er þo komed allt til Saalarennar.

11. A þeim sama Tijma mun segiast til Folks þessa, og til Jerusalem. Þar kiemur eirn þurr (b) Vindur hingad, yfer um Fiollenn, so sem af Eydemorkenne, a þann Veigenn sem liggur til Dotturennar mijns Folks, ecke til ad vinsa edur ad hreinsa med.

(b) (Vindur) Kongurenn af Babylon.

12. Jaa, þar skal koma eirn Vindur, sem skal verda þeim offsterkur, þa vil Eg og ganga j Dom vid þa.

13. Siaa þu! hann kiemur, farande hingad sem Skijed, og hans Vagnar eru so sem annad Storm-Vedur, hans Hestar eru fliootare enn Ernur, Vei oss! Vier munum j Eyde lagder verda.

14. So þvo þu nu Jerusalem þitt Hiarta af Illskunne, so ad þier verde hiaalpad! Hversu leinge skulu þeir slæmu Lærdomar hiaa þier vera?

15. Hviad þar kiemur eitt Hroop j fra Dan, og jll Tijdende j fra Fiallenu Ephraim.

16. Hvornenn Heidingiarner hroosa sier. Og þad hefur hliomad allt til Jerusalem, ad þar kome (c) Vaktarar ur fiarlægum Londum, og munu æpa j moote Stodunum Juda.

(c) (Vaktarar) Er riett a mote Meiningunne, Eyðeleggiara kallar hann Vaktara.

17. Þeir munu umsitia þa allt um kring, so sem adrer Vaktarar um Grundernar, Hviad þeir hafa Mig til Reide reittann, seger DROTTinn.

18. Þad hefur þu til Verdlauna fyrer þijna Breytne, og þijn Verk, Þa mun þitt Hiarta finna hvorsu mikel ad er þijn Illska.

19. Hvornenn er mier so hiartanlega Illt, mitt Hiarta þad flokrar j mijnu Brioste, og hefur ongva Hvijldar-Roo, hviad mijn Saala heyrer Herludursins Hliod, og Bardagans Slag.

20. Og hvort Dauda-Hroop epter annad. Hviad allt Landed verdur j eyde lagt, Mijnar Herbuder og Landtiolld verda skyndelega nidur rifenn.

21. Hversu leinge a eg þo ad siaa þau Merkenn, og heyra Herludursins Hliod?

22. Enn mitt Folk er galed, og truer mier ecke, Heimsker eru þeir og skeyta þvi ei. Nogu hyggner eru þeir til jllt ad giora, enn vel ad giora vilia þeir ecke læra.

23. Eg leit a Landed, Siaa þu! Þad var tomt og j Eyde, og a Himenenn, og hann var (d) mirkur.

(d) (Mirkur) Ebr. ecke biartur.

24. Eg leit til Fiallanna, og siaa þu, Að þau hristust, og allar Hæder þær skulfu.

25. Eg saa, Og siaa þu! ad þar var eingenn Madur, og aller Fuglar under Himnenum voru j burt flogner.

26. Eg saa, Og siaa þu! þad Akrarner voru j Eyde, og aller Staderner a þeim voru nidur brotner fyrer DROTTne, og fyrer hans Grimmdar Reide.

27. Hviad so seger DROTTinn, þad allt Landed skal foreydt verda, og þo vil Eg ecke (e) aldungis fordiarfa þad.

(e) (Alldungis) Þad er, Eg vil laata nockra verda epter, Þad hafa þeir j þann Tijma vel skiled, so sem vendulegt

veniulegt Moal, ad þad skyllde vera ute og endad med þa, ad nockrum undan sleknum, hvorier ad ecke skylldu bijhallda þoi Ri kenu sem fyrre var.

28. Þar fyrer skal Landed verda hormulegt, Og Hiinenenn þar fyrer ofaun sorgarlegur, af þvi, ad Eg hefe talad þad, Eg hefe oalycktad þad, og Eg skal eige angra mig um þad, Eg v.l ei helldur loata af þvi.

29. Aller Staderner skulu flya fyrer þvi Riddara og Skotmanna Heroopenu, og j burt hlaupa a hickvar Skoogar-Merkur, og innskrijda j Biorgenn, Aller Staderner sku-lu yfergiefner verda, so ad eingenn skal þar in-ne bua.

30. Þu hin nidurbrotna! Hvad villtu þa til giora? Enn þo ad þu skrydder þig med Purpura Klædum, og med gullegum Gerse-mum, Og prydder þitt Andlit, þa skrydder þu þig þo til forgiefins, Þviad þeir sem nu loa-tast luta þier þeir munu fyrerlyta þig, þeir munu stunda epter þijnu Lijfe.

31. Þviad Eg heyrda eitt Hroop, lijka sem þeirrar ed fæda skal, eina Kveinan, so sem þeir-rar, sem ad er j sinne Firstu Fædingarhrijd. Þau Hoa-Hliodenn Dotturennar Zion sem ad grætur, og utrietter Hendurnar, Ah, Vei mier! Eg hlyt nu med ollu nidur j Grunn ad forganga fyrer Manndroapenu!

# V. Capitule.

Jeremias utmoalar þad storkostlega Gudleyse i Jeru-salem, Eins hioa Andlegum sem Veralldlegum.

Ganged j giegnum Goturnar til Jerusalem, og sioed til, og giefed Gaum ad, og lei-ted a hennar Strætum, hvort ad þier finned nockurn þann sem riett giorer, og spyrie epter Trunne, so vil Eg vera þeune Miskunsamur.

2. Og enn þo ad þeir sege, Vid þann Lifanda GUD, þa sveria þeir þo falskleaana.

3. DROttinn! þijn Augu oalyta Truna, þu slær þa, enn þeir kieuna ecke til þess. Þu þvingar þa, enn þeir forbetra sig ecke, þeir hafa hardara Andlit enn Hellustein, og vilia ecke snua sier.

4. Enn eg þeinkta, Nu vel, Sa aume Flockur er skinlaus, vitande ecke neitt af DROTTins Veige, og af sijns Guds Riettindum.

5. Eg vil ganga til þeirra Volldugu, og tala vid þa, þeir hinu somu munu vita af Veige DROTTins, og sijns Guds Riettindum, enn allersaman þeir hofdu Oked j sundur bro-ted, og Toginn j sundur slited.

6. Þar fyrer mun og einnenn þad (a) Leo-ned sem af Skogenum kiemur j sundur slijta þa, og sa Ulfurenn ur Eydemorkenne mun fordiarfa þa, og sa Pardus mun umsitka þeirra Borger, Hann mun upp eta þa alla sem þar ut ganga, þviad þeirra Synder eru ofmargar, og þeir eru forhardnader j sinne Ohlydne.

(a) (Leon) Þad er, Kongurenn af Babylon.

7. Hvornenn skal Eg þier þa Miskunsamur vera? Med þvi ad þijn Born yfer-giefa Mig, og sveria vid þann sem eingenn GUD er. Og nu, þa Eg hefe mettad þau, drijgia þau Hoora-ner, og hlaupa j Skiækna Hus.

8. Hvor sem einn þa hnyser epter Eignar-Konu sijns Noaunga, so sem of-alder lauser Stoodhestar.

9. Og Eg skyllda ecke fyrer slijkra Hluta Saker vitia þeirra, seger DROTTinn, og mijn Soala skyllde ecke hefna sijn a soddann Folke sem þetta er?

10. Stormed til þeirra Murveggia, og fleyged þeim um Koll, og legged þa þo ei med ol-lu j Eyde. Ꝫ burt flytied þeirra Vijn-Vidar Kvistu, Þviad þeir eru ecke DRottins.

11. Helldur þa Forsmoa þeir Mig, bæde þad Hused Israels, og þad Hused Juda, seger DROTTinn.

12. Þeir (b) afneita DROttne, og segia. Ecke er hann þad, og ecke mun þad vegna oss so jlla, Sverd og Hungur munum vier ecke sioa.

(b) (Afneita) Þad kann ecke ad vera Guds Ord sem Jeremias talar.

13. Ꝫoa

13. Joa þeir Prophetarner eru Skialarar, og hafa ecke Guds Ord, Kome þad so yfer þa sioalfa.

14. Þar fyrer seger DROTTinn Alld Zebaoth, Med þvi þier taled soddan Ord, Sioa þu! þa vil Eg giora mijn Ord j þijnum Munne ad Ellde, og Folk þetta ad Vidar-Trioam, og hann skal foreyda þeim.

15. Sioa þu, Eg vil fæta yfer Ydur af Huse Israels eitt Folk ur fiarlægum Stødum (seger DROTTinn) eitt megtugt Folk, hvort þad Firsta Folk hefur vered, Eitt Folk hvors Tungumoal þu skilur ecke, og hvad þeir tala þa muntu þad ei underſtanda.

16. Þeirra Pijlna-Koffur eru opnar Grafer, Aller eru þeir Risar.

17. Þeir munu fortæra þinne Hauſt-Vinnu og þijnu Braude, Þeir munu upp eta þijna Syne og Dætur, Saude þijna og Naut munu þeir uppsvelgia, þeir munu foreyda þijnum Vijnvide og Fikiutrioam, þeir munu med Sverde fordiarfa þijnar øruggar Borger, sem þu hefur þitt Trauſt uppa.

18. Og eige vil Eg olldungis j eydeleggia ydur a þeim sama Tijma, seger DRottenn.

19. Og ef ad þeir villdu þa segia, Hvar fyrer giører DROTTenn Gud Vor oss allt þetta? Þa skalltu svara þeim. Lijka sem ad þier yfergoafud mig, og þionudud annarlegum Gudum j ydar eigenn Lande, so skulud þier og þiona Annarlegum, j einu þvi Lande sem ecke er ydar.

20. Þetta skulud þier kunngiøra j Huse Jacobs, og predika j Juda, og segia,

21. Hlyded til Þier Foavijſt Folk, sem hafed ongvann Skilning! Þier sem hafed Augunn og sioaed ecke, hafed Eyrunn og heyred ecke!

22. Vilied þier ecke ottaſt Mig, seger DROTTenn, og skielfaſt ecke fyrer mier? Eg sem sette Sandenn til Sioafarbackans, innann hvorra Takmarka hann blytur alla Tijma ad vera, og moa þar ecke yfer ganga. Og hvorsu sem hann belgiſt, þa orkar hann einskis, og þo ad hans Bylgiur ædi þar aframm þa meiga þær þo ecke þar yfer ganga.

23. Enn þetta Folk hefur eitt frafallande Ohlydugt Hiarta, þeir blijfa frafallner, og ganga ætijd leingra j burt.

24. Og þeir segia ecke einu sinne j sijnu Hiarta, Ottum oss ottaſt DROTTenn Gud Vorn, sem oss giefur Morgun-Doggena og Kvølld-Regnid j Riettann Tijma, og vardveiter vora Hauſtyrkiu Trulega Aarlega Aars.

25. Enn ydar Illsku-Verk þau forhindra þad, og ydar Synder þær snua þvilijkum Gooda fra ydur.

26. Þviad þar finnaſt Ogudhrædder a medal mijns Folks, þeir sem liggia til Lægis, og setia Snøru fyrer Folked ad veida þad, Lijka sem þad Fuglarenn giører medur sijnum Veidebrellum.

27. Og þeirra Hus eru full med Kyndugskap, lijka sem eitt Fuglabur er fullt med Tal-Fugla.

28. Þar ut af verda þeir Megtuger og Rijker, Feiter og Frioalſleiger. Þeir fara med Illskuper, þeir hallda eingenn Riettinde, þeir frammkvæma ecke Moalefned hins Fødurlausa, og þad luckaſt þeim þo, og þeir hioalpa ecke hinum Foatæka til Riettinda.

29. Skyllde eg þa ecke vitia slijks, seger DROTTenn, og skyllde mijn Soala ecke hefna sijn a svoddann Folke sem þetta er?

30. Þad ſtendur Hrædelega og Ognarlega til j Landenu.

31. Prophetarner kienna Lygar, og Presstarner þeir yferdrottna j sijnu Embætte, og mitt Folk vill giarnann hafa þad so. Hvørnenn mun ad Sijdurſtunne þad vilia ydur vegna yfer slijku?

## VI. Capitule.

Ad Gydinga Folk ætte ad verda Herleidt til Babylon, fyrer saker ſinnar Ohlydne og O Gudhrædslu.

Þier

Þier BenJamins Born! samansafnid ydur af Jerusalem, og blaased j Ludrana a Vardhalldenu j Thekoa, og setied upp eitt Merke a þvi Vardhalldenu Beth Cherem. Þviad þar geingur ein Ogiæfa framm af Nordrenu, og ein mikel Eymd.

2. Dotturenn Zion hun er lijka sem eitt fagurt og lystelegt Einge.

3. Enn þar munu Hyrdarar koma yfer hana med sijna Hiord, þeir munu sloa sijnum Landtiolldum upp j kringum hana, og beita hvor j sijnu Takmarke, og segia.

4. Bued ydur til Bardaga a mote henne. Standed upp, Vier vilium fara upp þangad, a medann þad enn nu er hoar Dagur, Eya! þad vill kvollda, og Skuggenn gioreſt mikell.

5. Nu vel, Laatum oss vera uppe, skyldum Vier a Noattarþele uppfara þangad, og fordiarfa hennar Haller.

6. Þviad so seger DROTTenn Zebaoth, Afhöggvid Trien, og giored Vernd a moote Jerusalem, þviad hun er su Borg sem heimsokt skal verda, þvi þar jnne eru ecke utan Roanginden ein.

7. Þviad lijka sem annar Brunnur uppveller sijnu Vatne, so uppvellur og eirnenn hennar Illska. Hennar Roanginde og Yfergangur kallar yfer henne, og þeirra Mord og Slög fremia þeir daglega fyrer Mier.

8. Giordu Yferbot Jerusalem! aadur enn þad mitt Hiarta snyr sier j burt fra þier, og þad Eg giore þig ad einu Eydelande, þar jnne ed eingenn byr.

9. So seger DROTTinn Zebaoth, Hvad epter er vorded af Jsrael, þad skal og lijka seirna meir af lesed verda so sem af ödru Vijnvidartrie. Enn hann sem Vijnberenn les mun kasta hvorium epter annann j Körsena.

10. Ah! Vid hvorn skal eg þo tala, og þad vitna? So ad nockur villde þad heyra? Enn þeirra Eyru eru ei umskorenn, þeir gieta ecke heyrt þad. Sioa þu, þeir halllda Ord DROTTens fyrer Spieskap, og vilia þad ecke.

11. Þar fyrer er eg so fullur af (a) Heitingum DROTTins, ad eg kann ei af ad laata ad ausa þeim ut, bæde yfer Bornenn a Strætunum, og yfer þa Fullordnu j Roadenu, alla til samans, þviad bæde Menn og Konur, bæde Gamler og Orvasa þa skulu Herleidder verda.

(a) (Heitingum) Þad er, Eg hlyt ad ut-ausa Guds Heitingum og hans Reide-Ordum, lijka sem sa er utbrytur Botnenn ur einne Tunnu.

12. Þeirra Hus skulu verda Utlendum ad Hlutskipte, asamt medur þeirra Akurlondum og Husfreyum. Þviad Eg vil utrietta mijna Hond, seger DROTTenn, yfer Landsins Innbyggendur.

13. Þviad þeir eru aller Agiarner, bæde Smaaer og Stoorer, og bæde Prophetarner og Prestarner þa kienna aller til samans falsklega Guds Þionustu.

14. Og hugga mitt Folk j sinne Ogiæfu, ad þeir skule lijtt skeyta um þad, og segia, (b) Fridur, Fridur, og þar er þo ecke Fridur.

(b) (Fridur) Þad er, Stendur og geingur allt vel til, öllu er ohætt, og þar er eingenn Neyd. 1 Thess. 5, 3.

15. Þar fyrer munu þeir til Skammar verda, ad þeir fremia soddann Svijvirdingar, þo vilia þeir samt (c) Oskammader vera, og vilia ecke skammast sijn. Þar fyrer hlióta þeir ad falla j eina Hrugu, og nær ed Eg verd þeirra vitiande, þa skulu þeir falla, seger DROTTinn.

(c) (Oskammader) Þeir vilia þad ecke heyra, ad þeir sieu Vonder, og verde vanvirdter.

16. So seger DROTTenn, Stijged uppa Veguna, og skygnest um, og spyried epter þeim hinum Forna Veigenum, hvor ad sie sa hinn goode Vegurenn, og ganged a þeim hinum sama, þa * munud þier Hvijlld finna fyrer ydar Saaler. Enn þeir segia, Vier vilium þad ecke giora. * Matth. 11, 29.

17. Eg hefe sett Vokumenn yfer ydur, giefed Gaum ad Trometunnar Hliode, Enn þeir segia, Vier vilium þad ecke giora.

18. Þar fyrer þa heyred þier Heidingiar! og giæted ad þvi med ydru Folke.

19. Þu Jord hlydtu til, Sioa þu! Eg vil innflytia yfer þetta Folk eina Ogiæfu, sem er þeirra forþienud Laun, af þvi þeir akta ecke mijn Ord, og j burtkasta mijnu Logmaale.

20. Hvad skeyte eg um Reykelsid, sem kiemur ut af þvi Rijke Arabia, edur um þann gooda (d) Kannele-Borkenn sem kiemur ur fiarlægum Londum? Ydart Brenne-Offur er mier ecke þacknæmelegt, og ydrar Forner þocknast mier ecke.

(d) (Kannele-Borkenn) Sumer kalla Kalmus.

21. Þar fyrer seger DROTTenn so, Sioa þu, Eg vil setia eina Hneixlan a medal Folks þessa, a hvoria þad þeir skulu sig reka, bæde Fedurner og Bornenn til samans, og hvor Naagrannenn med odrum skal tortijnast.

22. So seger DROTTenn, Sioa þu, þar skal koma eitt Folk af Nordrenu, og eitt miked Folk mun upphefia sig hardt nærri voru Lande.

23. Sem hafa Boga og Skiolldu, þeir eru Hrædeleger og Miskunarlauser. Þeir koma Þiotande sem annar Stor-Sior, og rijda a Hestum, Herklædder sem Strijds-Menn, a mote þier þu Dotturenn Zion!

24. Nær ed vier heyrum af þeim, þa munu vorer Hnefar nidur sijga, vier munum hafa Angist og Sott, sem su ed fæda skal.

25. Eingenn gange ut a Akurlondenn, Eingenn gange uta Vollruna, þvi ad alla Vegana er þar hoaskasamlegt fyrer Ovinanna Sverde.

26. O þu Dotturenn mijns Folks! Klæd þig j Seck, og legg þig j Osku, Harmadu lijka sem fyrer einum einka Syne, og syrg so sem sa ed nærsta miog er Sorgbitenn. Þviad Fordiarfarenn kiemur miog skyndelega yfer oss.

27. Eg hefe sett þig til eins Nidursmellstara, a medal mijns Folks, sem er so hardt, ad þu skallt reyna og proofa þeirra Breytne.

28. Allersaman eru þeir froafallner, og ganga svikfamlegana. Aller eru þeir fordiarfadur Kopar og Jaarn.

29. Smidiubelgurenn er uppbrenndur, Blyed j burt hverfur, Smelltingenn er til forgiefens. Þviad þad hid vonda er ecke fraskiled.

30. Þar fyrer kallast þeir eirnenn eitt burtkastad Silfur, þviad DROttinn hefur utskufad þeim.

## VII. Capitule.

Judæ Ættkvijsl er Aminnt (I) ad giora Yferbot; og (II) ad hafna Hræsne og (III) Afgudadijrdkun.

1. Þetta er þad Ord, hvort ed skiede af DROttne til Jeremia, og sagde.

2. Gack þu j Dyrnar a Husenu DROttins, og predika þar þetta Ord, og seig, Heyred Ord DROTTens, þier aller af Juda, sem um þessar Dyr jnngangid ad tilbidia DROTTinn!

3. So seger DROttenn Zebaoth, Gud Israels. Betrid ydvarn Lifnad, og Athæfe, þa vil Eg byggia hioa ydur j þessum Stad.

II. 4. Treysted ecke uppa Lygena, þa þeir segia, Hier er Mustere DROTTins, Hier er Mustere DROTTins, Hier er Mustere DROTTins.

5. Helldur þa bæted ydvarn Lifnad og Athæfe, so ad þier giored Riett hvor odrum.

6. Og þeim Utlendu, Fodurlausum og Eckiunum þa giored ecke neitt Ofrijke, og uthelled ecke neinu Saklausu Bloode j þessum Stad. Og epterfilged ecke annarlegum Gudum til ydars eigennlegs Skada.

7. Þa vil Eg um Allder og Æfinnlegana bua hioa ydur j þessum Stad, j þvi Landenu sem Eg gaf ydar Forfedrum.

8. Enn nu treysted þier uppa Lygar, sem eingenn Gagnseme er ad.

9. Þar

9. Þar til med þa erud þier Þiofar, Manndrapparar, Hoorkarlar, Meinsæris-Menn, og bered Reykelse Baal, og epterfilged annarlegum Gudum, sem þier þecked ecke.

10. Þar epter oc, þa komed þier, og ganged fyrer Mig j þessu Huse, sem ad nefndt er epter mijnu Nafne, og seged, Þad hefur ongva Neyd med oss, af þvi vier giorum sodann Svijvirding.

11. *Hvort hallded þier þa þetta Hused, sem ad nefndt er epter mijnu Nafne, fyrer eina Mordingia Gryfiu? Sioa þu, Eg sie þad vel, seger DROttenn. *Matth. 21, 13. Marc. 11, 17. Luc. 19, 46. Joh. 2, 16.

12. Ganged burt til mijns Stadar j Silo, þar sem mitt Nafn hefur aadur bued, Og skoded hvad Eg hefe þar giort, fyrer Illsku Saker mijns Folks Israel.

13. Enn epter þvi, ad þier fremied aller sodann Knytte, seger DROttinn, Og Eg læt (a) alltijd predika fyrer ydur, og þier villed ecke heyra. Eg kalla til ydar, og þier villed ecke andsvara.

(a) (Alltijd) Þad er, Snemma.

14. Þa vil Eg giora vid þad Hused, sem nefndt er epter mijnu Nafne, a hvort þier treysted, og vid þann Stadenn sem Eg gaf ydar Forfedrum, eins lijka so sem Eg giorde vid Silo.

15. Og Eg vil j burt kasta ydur fra mijnu Auglite, lijka sem ad Eg hefe j burt kastad ollum ydar Brædrum, þvi giorvollu Sæde Ephraims.

16. Og þu skallt ecke bidia fyrer þessu Folke, og þu skallt ecke neina Kveinstafe, nie Bænastad j framme hafa fyrer þad, og ecke tioa þeirra Moal fyrer mier, Þviad Eg vil ecke bænheyra þig.

II. 17. Þvi sier þu ecke Hvad þeir giora j þeim Stodunum Juda, og a Strætunum til Jerusalem?

18. Borninn þau lesa Videnn til samans, þa uppkveikia Fedurner Elldenn, og Konurnar hnoda Deiged, so ad þær bake Braudkokuna þeirre Himensinns Melecheth, og giefa þeim annarlegum Gudunum Dryckiar Offrid, so ad þeir giore mier Strijd.

19. Enn þeir skulu ecke Mier þar med j strijda, seger DRottinn, helldur sioalfum sier, og þeir hliota til Skammar ad verda.

20. Þar fyrer seger DROTTinn DRottinn, Sioa þu! Mijn Reide og mijn Grimmd er uthellt yfer þennann Stad, bæde yfer Menn og Fienad, yfer Trien j Skogenum, og yfer Avoxtinn Landsins, og hun skal brenna, og eingenn skal kunna ut ad slockva.

21. So seger DROTTenn Zebaoth, GUd Israels. Legged ydvart Brenne-Offur og onnur Offur til samans, og etid Kiotid.

22. Þviad Eg hefe hvorke sagt nie boded ydar Forfedrum af Brenne-Offre edur odrum Fornfæringum, a þeim Deige er Eg utleidde þa af Egyptalande.

23. Enn þetta baud Eg þeim og sagde, Hlyded mijnu Ordi, so vil Eg vera ydar GUd, og þier skulud vera mitt Folk, og ganged a ollum þeim Vegum sem Eg byd ydur, so ad ydur skule vegna vel.

24. Enn þeir villdu ecke heyra, nie sijn Eyru þar ad hneigia, helldur geingu þeir epter sijnu eiginn Roade, og epter þeirra vondsligum Hiartans Þootta, og geingu so a Bak aptur, enn ei a-framm.

25. Joa, J fra þeim Deige, þa Eg utleidde Fedur ydra af Egyptalande, og allt til þessa Dags, þa hef Eg (b) alltijd sendt til ydar, alla mijna Þionustumenn, Prophetana.

(b) (Alltijd) Þad er, Snemma.

26. Enn þeir vilia ecke mier heyra, nie sijn Eyru til hneigia, helldur eru þeir Hardsvijrader, og giora verra enn þad þeirra Fedur giordu.

27. Og þa ed þu seger þeim enn allt þetta,

þá heyra þeir þig þo ecke, Kallar þu til þeirra, þa svara þeir þier þo eige.

28. Þar fyrer seg þu til þeirra. Þetta er þad Folk sem ecke vill heyra DROttne Gude sijnum, nie bæta sig. (c) Truenn er j burt horfenn, og utslitenn af þeirra Munne.

(c) (Truenn) Þad er, Sa riette Lærdomur er med øllu j burtu, og þeir predika eckert þar um.

29. Raka þu þitt Hoar j burt, og kasta þvi fra þier, og kveina sorgrætelegana a þeim Hædunum. Þviad DROTTenn hefur þessu Slekte, yfer hvoriu hann er reidur, j burt kastad og utskufad.

30. Þviad Børnenn Juda giora jlla fyrer mijnum Augum, seger DROTTinn. Þeir setia sijna Svijvirding inn j þad Husid sem ad nefndt er epter mijnu Nafne, til ad saurga þad.

31. Og byggia Alltare Thopheth j (d) Ben Hinnom Dal, so ad þeir uppbrenne sijna Syne og Dætur, hvad Eg hefe alldreige boded, og eige hefur mier þad til Hugar komed.

(d) Ben Hinnoms Dalur. Jerem. 19, 6.

32. Þar fyrer, Sioa þu! Sa Tijme kiemur seger DROTTenn, ad þad skal ecke meir kallast Thopheth, og Ben Hinnom Dalur, helldur Mords-Dalur, og þar skal grafed vera j Thopheth, af þvi þar mun ecke faast annar-stadar Rum til.

33. Og Lijkamar Folks þessa skulu verda Fuglum Himensins og Dyrum a Jordunne ad ætu, og eingenn skal j burt styggia þau þadann. Og Eg vil j Stodunum Juda, og a Strætunum til Jerusalem, j burt taka þad Gledinnar og Fagnadar Kall, og þa Raustena (e) Brudgumans og Brudarennar, þviad Landed skal j Eyde vera.

(e) (Brudgumans) Þad er, Þijpna Hliood, og øll lysteleg Hliod sem hliema j Brullaupum, Brudgumanum og Brudenne til Æru.

34. A þeim sama Tijma, seger DRottinn, munu Menn utkasta Beinum Konunganna j Juda, Beinum þeirra Hofdingianna, Beinum þeirra Prestanna. Beinum þeirra Prophetanna, Beinum þeirra Borgarmannanna til Jerusalem, j burt ur þeirra Grofum.

35. Og þeir munu utdreifa þeim under Soolena, Tunglid og allann Himensins Her, hvern þeir elskudu, hvorium þeir og þionudu, og honum epterfilgdu, vitiudu og tilbaadu. Eige skulu þau upplesast aptur og grafenn vera, helldur skulu þau verda ad Saurindum a Jordunne.

36. Og aller þeir sem epter munu vera af þessu jlla Folke, j hvorium hellst Stad sem þeir eru, þangad sem Eg hefe þa j burt reked, þa skulu þeir helldur vilia vera dauder enn lifande, Seger DROTTinn Zebaoth.

# VIII. Capitule.

(I) Ad Forherding Juda Barna yrde hardlega strøffud, (II) med Skelfelegre Komu Ovinarens.

I. Þar fyrer seg þu til þeirra, So seger DROTTinn, Hvar er sa nockur sem ad fellur, ad hann villde ecke giarnann upp aptur standa? Hvar er sa nockur sem ad villt fer, ad hann vilie ecke giarnann komast a þann rietta Veigenn aptur?

2. Samt vill þo þetta Folk j Jerusalem ætijd og alla Tijma villt fara. Þeir hallda so fast a þeirre falsklegre Guds Þionustu, ad þeir vilia eige laata sinna sier þar j fra.

3. Eg sie og heyre, ad þeir læra ecke neitt hvad riett er, þar er sa eingenn sem ad honum mislijke sijn Illska, og sege, hvad er þad Eg giore? Aller þa hlaupa þeir sitt Hlaup, so sem grimmur Vijghestur j Bardaga.

4. Storkfuglenn under Himnenum veit sinn Tijma, ein Turtildufa, Tranann og Svalann formerkia þeirra Tijma, nær ed þær skulu apturkoma. Enn mitt Folk þad vill ecke vita Riettindenn DROTTins.

5. Hvornenn meiged þier þa segia, Vier vitum hvad riett er, Og vier hofum þa Heilogu Ritning fyrer oss? Þad eru þo ecke utann Lygar, hvad þeir hiner Skriftkloku þeir setia.

6. Þar fyrer hliota slijkir Lærendur til Skam-

Skammar, Skielfder, og Fangader ad verda, Þui hvad kunna þeir gott ad kienna, a medann þeir burt snara Orde DROTTins?

7. Þar fyrer vil Eg giefa annarlegum þeirra Husfreyur, og þeirra Akurlønd þeim sem þa munu utreka, Þviad þeir eru aller saman Agiarner, bæde Smaaer og Storer, bæde Prestarner og Prophetarner þa kienna falska Guds-Þionustu.

8. Og hughreysta mitt Folk j þeirra Giæfuleyse, ad þeir skulu ecke hyrda mikid um þad, og segia, Fridur, Fridur, Enn þar er þo ei Fridur.

9. Þar fyrer skulu þeir til Skammar verda, ad þeir fremia soddann Svijvirdingar, þo ad þeir vilie oskammader vera, og vilia ecke sioalfer sijn skammast. Þar fyrer hliota þeir ad falla j eina Hrugu, Og nær ed Eg fer þeirra ad vitia, þa skulu þeir falla, seger DRottinn.

10. Eg vil af-lesa þa alla samann, seger DROTTinn, so ad þar skulu eingenn Vijnber a Vijntrienu, og ongvar Fijkiur a Fijkiu-Trienu epter vera, Joa þau Laufblødenn skulu og eirnenn af falla, og hvad sem þad er, ad Eg hefe giefed þeim, þa skal þad fra þeim takast. Hvar eigum vier þa ad bua?

11. Samannsafned ydur þa, og lootum oss jnnfara j þær sterku Borgernar, og bijda þar epter Hioalpræđenu, Þviad DROTTinn GUD vor mun hioalpa oss med beisku (a) Dryck, af þvi ad vier syndgudustum so a mote DROTTne.

(a) (Dryck) Hann mun hioalpa oss til Eymdar og Olucku, enn eige til Lucku sem hier meined.

12. Joa, Treysted þar uppa ad þad skule ongva Neid hafa, sem þar er þo ecke neitt gott fyrer Hondum, og þad hier skulud heilbrigder verda, sem þar er þo ecke utann Skadseme fyrer Hondum.

13. Menn heyra, þad þeirra Hestar frysa nu þegar j Dan, og ad þeirra Vijgheståar hneggia, so þad allt Landed skielfur þar vid. Þeir koma þar framm, og munu upp eta Landed, med ollu þvi ed þar er jnne, Borgena oasamt med ollum þeim er þar bua jnne.

14. Þviad sioa þu, Eg vil senda Hoggorma og Basiliscos a medal ydar, sem ecke eru særder, þeir skulu stijnga ydur, seger DRottinn.

15. Þa mun Eg endurlijfga mig af minne Mædu og Hiartans Sorg.

II. 16. Sioa þu! Dotturenn mijns Folks mun kalle ur fiarlægu Lande, Vill þa DRottinn ecke framar vera GUD j Zion? Eda skal hun nu ongvann Konung hafa leingur? Joa, Hvar fyrer hafa þeir giort mig so reidann fyrer sijn Lijkneske og þa annarlegu onyta Guds-Þionustu.

17. Haustед er umlided, og Sumared er j burtu, og oss kiemur eingenn Hioalp.

18. Mig angrar þad af Hiarta, ad mitt Folk er so fordiarfad, Eg grem mig þess og Eg ber mig jlla.

19. Hvort eru þa eingenn Smyrsl j Gilead? Eda er þar eingenn Græđare til? Hvar fyrer er ecke Dotturenn mijns Folks þa læknud?

# IX. Capitule.

Harmakveinan (I) Jeremiæ, og (II) Gydinga Folks.

I. Ah! Eg villde eg hefde nog Vatn j mijnu Hofde, og þad mijn Augu være ein Tooara-Uppspretta, so ad eg mætte groata bæde Nætur og Daga þa jhelslegnu a medal mijns Folks.

2. Ah! Eg villda ad eg hefde eitt Herberge a Eydemorkinne, þa villda eg yfergiefa mitt Folk, og fara j burt fra þvi, þviad þeir eru ecke utann Hoordoms Menn, og eirn þriootskusamlegur Flockur.

3. Þeir skiota ecke utann Lygunum med sijnum Tungum, og ongvum Sannleika, og þeir veita yfergang Landenu, og ganga fra einu Ranglætenu til annars, og skeyta mier ecke, seger DROTTinn.

4. Sierhvør vare sig vid sijnum Vin, og true eige helldur sijnum Brodur, Þviad * eirn Broodurenn nidurþricker hinn annann, Og eirn Vinurenn svijkur hinn annann.

* Matth. 10, 21.

5. Eirn Vinurenn hann prettar hinn annann, og talar ecke eitt satt Ord. Þeir eru kostgiæfner um þad, Hvørnenn ad þeir foae sviked hvør annann, og þad giører þeim Mein, ad þeir kunna ecke ad giøra þad enn verr.

6. Þad er alla vegana ecke utann Pretter a medal þeirra, og fyrer Svikrædanna saker þa vilia þeir ecke þeckia Mig, seger DRottinn.

7. Þar fyrer seger DROTTinn Zebaoth so, Sioa þu, Eg vil smellta þa, og reyna þa, þvi hvad skal Eg annad til giøra, first ad mitt Folk þad pryder sig so?

8. Þeirra falskkegar Tungur eru daudleg Skeyte, medur sijnum Munne tala þeir vinsamlega til sijns Noaunga, Eun j Hiartanu umsitia þeir þann hinn sama.

9. Skyllda Eg nu ecke vitia þessa a þeim, seger DROTTinn, Skyllde og ecke Soala mijn hefna sijn a soddann Folke sem þetta er?

10. Eg hlyt ad groata og kveina uppa Fiollunum, og ad klaga mig j hioa Fioarhusunum j Eydemørkenne, þviad þau eru so algiørlega j Eyde løgd, ad þar um geingur eingenn, og ecke heyra Menn þar nein Hliood Fienadarens, þar eru bæde Fuglarner Himensins, og Fienadurenn, allt samann j burtu.

11. Og Eg vil giøra Jerusalem ad eirnre Grioothrugu, og ad einu Drekabæle, og Eg vil j eydeleggia Borgernar Juda, so ad eingenn skal bua þar jnne.

12. Hvør hann være nu vitur, og liete sier þad til Hiarta ganga, og kunngiørde þad hvad ed Munnur DROttins seger til hans, hvar fyrer ad Landed verdur fordiarfad og eydelagt, lijka sem ønnur Obyggd, þar ed eingenn umgeingur.

13. Og DROTTinn sagde, Þar fyrer, ad þeir forloata mitt Løgmoal, sem Eg gaf þeim, og hlyda ei mijnu Moale, og lifa ei þar epter.

14. Helldur epterfilgia sijnum Hiartans Hug-þotta, og Baalim, so sem þeirra Fedur kienndu þeim.

15. Þar fyrer seger DROTTinn Zebaoth, Gud Israels, so, Sioa þu, Eg vil fæda Folk þetta med beiskre Grasa-Jurt, og giefa þvi Gall ad drecka.

16. Eg vil ut-tvijstra þeim a medal Heidingianna, hvøria þad hvørke þeir nie þeirra Fedur þeckia, og Eg vil senda Sverded a bak til vid þa, þangad til ad þeir eru foreydder.

II. 17. So seger DROTTinn Zebaoth, Utveiged og tilsetied Harma-Konur, ad þær kome, og sended epter þeim sem þad vel kunna, ad þær kome og harme oss skyndelega.

18. So ad vor Augu meige fliota j Toarum, og vorar Augnabryr renna j Vatne.

19. So ad Menn heyre eitt soar-grætelegt Hroop j Zion, med þessum Hætte, Auvii! Hvørnenn erum vier so med øllu j eydelagder, og til Skammar vordner? Vier hliootum Landed ad ryma, þviad þeir hafa nidur broted vora Bustade.

20. So heyred nu þier Kvinnur! Orded DROTTens, og loated ydur þad Moaled hans Munns j Eyrum loda, Kienned ydrum Dætrum ad groata, og hvør kienne annare Harm ad bera, sem er a þennann Hoatt.

21. Daudenn er jnfallenn um vor Vindaugu, og komenn j vor Herberge, til ad drepa Bornenn a Gotunne, og Ungmennenn a Strætunum.

22. So seger DROTTinn, seg þu, þad Mannanna Lijkamer skulu liggia so sem adrar Tad-Hrugur a Tunvollum, og so sem Byndene epter Sloattu-Mannenum, þau eingenn upptekur.

23. So seger DROTTinn, Eirn sa vijs er hroose sier ecke af sijnum Vijsdome, eirn Oflugur hroose sier ecke af sijnu Afle, Eirn Rijkur hroose sier ecke af sijnum Rijkdome.

24. * Helldur hvør ed sier vill hroosa, hann

hann hroose sier af þvi, ad hann vite og þecke mig, þad Eg sie DROTTinn, Sa sem ad giorer Miskunsemena, Doomenn, og Riettvijsena, a Jordu. Þviad soddan þocknast mier, seger DRottinn. * 1 Cor. 1, 31. 2 Cor. 11, 1.

25. Sioa þu, Tijmenn kiemur, seger DROTTinn, þad Eg mune (a) alla heimsækia, þann Umskorna med þeim O-umskorna.

(a) (Alla) Gydinga og Heidingia til samans, Sa eine er so godur sem sa annar, Gydingar eru so vonder sem Heidingiar j Hiartanu, þo ad þeir a Lijkamanum sieu umskorner.

26. Sem er, Egyptska, Juda, Edom, Ammons Born, Moab, og alla þa sem bua j Landsaalfum Eydemerkurennar. Þviad aller Heidingiar þeir hafa O-umskorna Yferhud, Enn allt Israels Hus hefur O-umskorenn Hiortu.

# X. Capitule.

Gydinga Folk er aminnt (I) ad hafna Afguda-Villu Heidingia, og (II) ad Ottast DRottenn.

I. Heyred þier hvad ed DROTTinn talar til ydar, Þier af Huse Israels!

2. So seger DROTTinn, Þier skulud ecke læra Sidvenjur Heidenna Manna, Og þier skulud ecke hrædder vera fyrer Himens-Teiknunum, so sem þad Heidingiarner hrædder eru.

3. Þviad God Heidenna Manna eru alls eckert. Þeir hoggva eitt Trie j Skogenum, og Smidurenn smijdar þad med Oxenne,

4. Og pryder þad med Silfre og Gulle, og fester þad med Noglum og Homrum, ad þad skule ecke um koll detta.

5. Þau eru ei annad enn maalader Trie-Stockar, þau kunna ei ad tala, so hliota þau eirnenn borenn ad vera, þviad þau kunna ecke ad ganga. Þar fyrer skulud þier ecke hrædder vera fyrer þeim, þviad þau kunna hvorke ad hiaalpa nie Skada ad giora.

6. Enn þier, DROTTinn! er Eingenn lijkur, Þu ert Stor, og þitt Nafn er Mikels-hattar, og þu kannt þad ad audsyna med Giorninge.

II. 7. *Hvor skyllde ecke ottast Þig? Þu Kongurenn Heidenna Pioda! Þier er skylldugt ad hlyda, þviad þar er Eingenn a medal allra Vijsdoms Manna þeirra Heidnu, og j ollum Konga Rijkium, þinn Lijke.

* Opinb: B: 15, 4.

8. Aller saman þa eru þeir Heimsker og Faavijser. Þviad Trie-Stockurenn hlytur ad sonnu ad vera ein faafeingeleg Guds-Pionusta.

9. Siifurplotur flytiast hingad yfer um Siaafarhafed, Gulled ut af Uphas, tilbued af Meistaranum og Gullsmidnum, j Gult Silke og Purpura klæda þeir þa, Og þad er alltsaman Vijsra Manna Fundingar.

10. Enn DROTTinn er Eirn Sannur Gud, eirn Lifande Gud, eirn Eylijfur Kongur. Fyrer hans Reide skielfur Jordenn, og þeir hiner Heidnu kunna ecke ad þola hans Ognaner.

11. Þvi seg nu so til þeirra, Þeir Guder sem ecke hafa giort Himen og Jord, þeir hliota afmaader ad verda j burt af Jordunne, og under Himnenum.

12. Enn hann hefur giort Jordena med sijnum Krafte, og tilbued Jardar-Kringluna med sijnum Vijsdome, og Himenenn utbreidt med sijnum Skilninge.

13. Nær ed hann slær Reidarþrumurnar þa er Vatnsins nogleg Gnægd under Himnenum, og dregur upp Þokuna j fra Enda Jardarennar, hann giorer þær Elldingarnar j Regnenu, og lætur Vindena koma ur leynelegum Stodum.

14. Aller Menn eru heimsker med sinne Kunnattu, og hvor Gullsmidur verdur Skammarlegur medur sijnar Lijkneskiur, þviad þeirra Skurgod eru Svikræde, og hafa ecke neitt Lijf.

15. Þad er alldeilis ecke Par, og sviksamlegt Verk, þeir skulu fyrerfarast nær ed þeirra verdur vitiad.

16. Enn

16. Enn Hann er eige so, Sa sem ad er
Fiesiodur Jacobs, Helldur er hann Sa hinn
same sem skapad hefur alla Hlute, og Israel
er hans Erfdahlutur, hann heiter DRottinn
Zebaoth.
17. Tak þijna Hondlan burt ur Landenu,
þu sem byr j þeirre oruggre (Borgenne.)
18. Þvi so seger DROttinn, Sioa þu,
Eg vil j burt dreifa Innbyggiurunum Lands-
sins j þessu sinne, og Eg vil þreyngia ad þeim,
so ad þeir skulu kienna þess.
19. Ah, Mijn Eymd og Hiartans Sorg!
Enn eg þeinkte, þad sama er mijn Plaaga,
eg hlyt hana ad lijda.
20. Mijn Tiallдbud er nidur brotenn, og
oll mijn Stog eru j sundur slitenn. Mijn
Born eru j burtu, og eru ei meir fyrer
Hende, Eingenn vidrietter mijna Tialldbud
aptur, og eingenn slær mijnu Landtiallde upp
aptur.
21. Þviad Hyrdararner eru ordner ad
Vitleysingium, og hyrda ei um DROttinn,
þar fyrer kunna þeir og eirnenn ecke neitt
rettelegt ad kienna, Helldur eru allar Hiar-
der j sundur dreyfdar.
22. Sioa þu, Þar kiemur eitt Heroop
framm, og ein mikel Skielfing ur Nordur-
landenu, so ad þeir Staderner j Juda skulu
j Eyde leggiast, og ad Drekabælum verda.
23. Eg veit, DROTTinn! ad Mannsins
Giorningar standa ecke j hans Vallde, og
þad stendur ecke j neins Manns Magt, Hvor-
nenn þad hann skule ganga, edur greida sij-
na Gongu.
24. Typta þu mig, DROTTinn! þo
med Maata, og ecke j Bræde þinne, so ad þu
uppræter mig ecke!
25. Helldur uthell þu þinne Reide yfer
Heidingiana, þa sem ecke þeckia þig, og yfer
þær Kinkvijslernar sem ecke aakalla þitt
Nafn. Þviad þeir hafa Jacob upp eted, og
upp svelgt, þeir hafa utrymt hann, og hans
Bustade j eyde lagt.

# XI. Capitule.

Jeremias bodar Innbyggiurunum (I) i Juda og Jerusalem, so og (II) i Anathoth, Olucku, fyrer saker þeirra Storkostlegu Synda.

I. Þetta er þad Ord sem skiede af DRott-
ne til Jeremia, og sagde.
2. Heyred Ordenn þessa Saattmaalans!
so ad þier seged þau þeim j Juda, og þeim
Borgar-Monnum til Jerusalem.
3. Og seg til þeirra, So seger DRottinn
Israels Gud. Bolvadur sie sa sem ecke hly-
der Ordum þessa Saattmaalans.
4. Hvorn Eg baud ydar Fedrum a þeim
Deige þa Eg udleidde þa af Egyptalande, af
þeim Jaarn-Ofnenum, og sagde, Hlyded minne
Raust, og giored so sem Eg hefe boded ydur,
þa skulud þier vera mitt Folk, og Eg vil ydar
Gud vera.
5. So ad Eg meige hallda þann Eid sem
Eg hefe svared ydar Fedrum, ad giefa þeim
eitt Land, þar ed Miolk og Hunaang inne
flytur. Liika sem ad þad stendur enn j Dag.
Eg svarade og sagde, DROTTinn! Jaa,
þad sie og so.
6. Og DROTTinn sagde til mijn, Pre-
dika þu oll þesse Ord j Stodunum Juda, og
a Strætunum til Jerusalem, og seg þu.
Heyred Ordenn þessa Saattmaalans, og gio-
red þar epter.
7. Þviad Eg vitnade fyrer ydar Forfed-
rum j fra þeim Deige er Eg utleidde þa af
Egyptalande, allt til þessa Dags, og vitnade
snemma, og sagde, Hlyded minne Raust.
8. Enn þeir hlyddu ecke, og þeir hneygdu
ei helldur sijn Eyru, helldur gieck hvor eirn
epter sijns vonda Hiartans Þootta. Þar fy-
rer vil Eg og eirnenn laata ganga yfer þa oll
Ordenn þessa Saattmaalans, sem Eg hefe
boded ad giora, Og þeir hafa þo ecke þar
epter giort.
9. Og DROTTinn sagde til mijn, Eg
veit

veit vel Hvørnenn þad þeir j Juda, og þeir j Jerusalem sambinda med sier.

10. Þeir snua sier burt til þeirra Syndanna sinna fyrre Forfedra, Þeir sem ecke villdu helldur hlyda mijnum Ordum, og epterfilgdu eirnenn annarlegum Gudum, og þionudu þeim, lijka so hefur Hused Jsraels, og þad Hused Juda (alla Tijma) broted minn Saattmaala, þann Eg giorde vid Fedur þeirra.

11. Þar fyrer sioa þu, seger DRottinn, Eg vil laata yfer þa ganga eina Ogiæfu, hvøria þeir skulu ecke umflued gieta. Og nær ed þeir kalla til Mijn þa vil Eg ecke heyra þa.

12. Af þvi þa laattu Stadena j Juda, og Borgarmennena j Jerusalem ganga j burtu, og kalla til þeirra Gudanna fyrer hvørium þeir veyfudu Reykelsenu, enn þeir nunu ei hiaalpa þeim j þeirra Anaud.

13. Þviad þu Juda hefur so marga Gude sem þu hefur Stadena, og so mørg Stræte sem þar eru j Jerusalem, so mørg skammarleg Alltare hafed þier uppreist, til ad giora Reykelse fyrer Baal.

14. Af þvi bid þu ecke fyrer þessu Folke, og gior øngva Graatbeidne edur Bænastad fyrer þeim, Þviad Eg vil ecke heyra þa, nær ed þeir kalla til mijn j sinne Anaud.

15. Hvad hafa mijner (a) Viner ad giora j mijnu Huse? Þeir fremia allann Straakskap, og meina þad hid Heilaga Kiøted skule taka þad j burt fra þeim, og nær ed þeir giora jlla þa gledia þeir sig þar ut af.

(a) (Viner) Þad er, Lijka sem þa Møderenn kallar j Reidenne sinn Son, Jomfkiæra, edur Dande-Svein, hann Pilltskap giører, so kallar hann þa sijna Vine, sem eru þo j Raun Afgudadijrdkendur, og þykiast slijkt hafa vel giort.

16. DROTTinn hann kallar þig eitt Grænt, Fagurt, Avaxtarsamlegt, Vidsiniors-Vidartrie, enn nu hefur hann uppkveikt eirn (b) Elld um þad, med miklu Manndraaps-Hroope, so ad þess Greiner skulu fordiarfast.

(b) (Elld) Kongur af Babylon.

17. Þviad DROTTinn Zebaoth, sem þig groodursette, hann hefur hotad þier eirnre Ogiæfu, fyrer Jllsku Saker Hussens Jsrael, og Hussens Juda sem þær fremia, þad þær reita mig til Reide, medur þvi Reykelse sem þeir giora fyrer Baal.

II. 18. DROttinn opennberade mier þetta, so ad eg veit þad, og undervijsade mier þeirra aasetning, sem er,

19. Ad þeir villdu leida mig til Slaatrunar Beckfins sem annad meinlaust Lamb. Þvi ad eg vissa þad ecke, ad þeir høfdu raadslagad a mote mier, og sagt, Laatum oss fordiarfa þad Tried med sijnum Avexte, og uppræta hann j burt ur Landenu þeirra Lifendu, so ad hans Nafn skule alldrei meir hugleidt verda.

20. Enn Þu DROTTinn Zebaoth! þu Riettvijse Domare, þu sem proofar Nijrun og Hiørtunn! Laattu mig sioa þijna Hefnd a þeim, Þviad eg hefe a Hendur faled þier mitt Maalefne.

21. Þar fyrer seger DROTTinn so, j mote þeim Mønnonum j Anathoth, sem stunda epter þijnu Lijfe, og segia, Spaadu oss ecke neins j Nafne DROTTins, utann þu vilier deya fyrer vorum Høndum.

22. Þar fyrer seger DROTTinn Zebaoth so, Sioa þu! Eg vil heimsækia þa, Þeirra Æskumenn skulu jhel slegner verda med Sverde, og Syner þeirra og Dætur skulu deya af Hungre.

23. So ad eckert skal epter vera af þeim. Þviad Eg vil laata O-giæfu ganga yfer Mønnena j Anathoth, a þvi Arenu nær ed þeirra mun vitiad verda.

## XII. Capitule.

Þar eru Rettlaater, þeim geingur so sem þeir hefdu Verk þeirra Ogudlegu; Og þar eru Ogudleger, þeim geingur sem hefdu þeir Verk Rettlaatra. Pred: Bok: Salom: 8, 14.

DROTTinn! Þo ad eg villde þrepta Log vid þig, þa bijhelldur þu þo Riettenum, enn eg hlyt þo samt af Laga-Riettenum ad tala

vid þig. Hvar fyrer vegnar þeim Ogudlegu so vel, og þeir Forsmoanararner hafa allskonar Nægd?

2. Þu groodur-setur þa, so ad þeir fꝏ Rætur, og vaxa upp, og bera Avoxt, Þu lætur þa hroosa miked ut af Þier, og agar þa ecke.

3. Enn mig, DROTTinn! þa þecker þu, og sier til mijn, og profar mitt Hiarta fyrer þier, Enn þa lætur þu sioalfroada ganga sem Saude, so ad þeir skulu sloatrast, og sparar þa, ad þeir skule deydast.

4. Hvorsu leinge skal þo Landed standa so aumlega, og Grased a Vollunum j burt þorna so alla vegana, fyrer Innbyggiaranna Illsku Saker, so ad bæde Fie og Fuglar eru þar alldrei? Þviad þeir segia, Ja, Hann veit miked af þvi, hvornenn oss mune ganga.

5. First ad þeir (a) mæda þig sem a Fæte ganga, Hvornenn vill þier þa veita, nær ed þu skallt med þeim hlaupa sem Rijdande eru?

(a) (Mæda) Þad er, Kiære Jeremias! Erin brædđur j Anathoth, Hvornenn mun þier þa ganga j Jerusalem, þar þeir Drambsomu Vijkingar rijsa a moote þier? Enn vertu ohræddur, og etc.

6. Og þar sem þu leitar epter ohræddur ad vera j þvi Landenu sem Fridurenn er, Hvornenn mun þad þa vilia þier vegna, j hioa þeirre Drambsomu Jordan?

7. Þviad þijner Brædur, og þijns Fodurs Hus forsmꝏ þig eirnenn, og hroopa epter þier med Hꝏ-Reyste, Þar fyrer set þu ecke þitt Traust til þeirra, þo ad þeir tale enn vinsamlega vid þig.

8. Þar fyrer hlaut eg ad yfergiefa mitt Heimele, og fordast mijna Arfleifd, og giefa mijna elskulegu Sꝏlu j Ovina Hendur. Mijn Arfleifd er mier ordenn so sem eitt Leon j Skoge, og greniar a mote mier, þar fyrer er eg ordenn henne reidur.

9. Mijn Arfleifd er lijka sem eirn Fleckottur Fugl, j kringum hvorn þad Fuglarner safnast. Upp! og safned ad ydur ollum Dyrum Merkurinnar, Komed og uppsvelged.

10. Fiolde Hiardar-Geymslumanna hefur fordiarfad minn Vijngard, og nidur troded minn Akur.

11. Þeir hafa giort minn fagra Akur ad Eydemorku, þeir hafa lagt hann j Eyde. Eg sie allareidu hvorsu aumlegana þad hann er j Eyde lagdur.

12. Jꝏ, Gioervallt Landed er j Eyde, enn þar er eingenn, sem sier lætur þad til Hiarta ganga. Þviad þeir Foreydendurner fara hier framm, yfer um allar Hæder Eydemerkurennar, og þad uppsvelgianda Sverded DROTTins j fra odrum Lands Endanum allt til annars, og ecke neitt Holld mun Frid hafa.

13. Þeir nidur sꝏ Hveitenu, enn Þistla munu þeir uppskiera, þeir hafa þar Erfide fyrer, enn þeim kiemur þad ecke ad Gagne, af sinne Innkomu munu þeir og ecke glader vera, fyrer Grimmdar Reidenne DROTTins.

14. So seger DROTTinn j mote ollum mijnum illum Nꝏgronnum sem grijpa þa Arfleifd sem Eg utskipte a medal mijns Folks Israels. Sioa þu! Eg vil j burt slijta þa af þeirra Lande, og j burt ryckia Husenu Juda midt a medal þeirra.

15. Og nær ed Eg hefe þa j burt slited, Þa vil Eg aptur vera þeim miskunsamur, og Eg vil flytia hvorn til sinnar Arfleifdar, og hvorn j sitt Land aptur.

16. Og þad skal skie, ef ad þeir læra af mijnu Folke, ad sveria vid mitt Nafn (So Sannarlega sem DROttinn lifer) Lijka sem ad þeir kienndu (fyrr meir) mijnu Folke ad sveria vid Baal, þa skulu þeir uppbyggder verda a medal mijns Folks.

17. Enn ef þeir vilia ecke heyra, þa vil Eg upprydckia og fyrerkoma slijku Folke, seger DROTTinn.

## XIII. Capitule.

(I) Eymd og Volæde Juda Folks er fyrermindad med einum Linda; Og (II) Fulltum Leiglum.

1. So seger DROTTinn til mijn, Gack burt og kaup þier eirn Lierepts Linda,

da, og umgyrdtu þijnar Lendar þar med, og
gior hann ecke votann.
2. Og eg keypta einn Linda epter Skipan
DROTTins, og batt hann um mijnar
Lendar.
3. Þa skiede Ord DROTTins j annad
Sinn til mijn, og sagde.
4. Tak þann Lindann sem þu keypter, og þu
battst um þijnar Lendar, og bu þig, og gack
j burt til Phrath, og fel hann þar j eirnre
Biargskoru.
5. Eg gieck þangad, og falde hann hiaa
Phrath, so sem þad DROTTinn hafde mier
boded.
6. Enn epter langann Tijma sagde DROttinn
til mijn. Bu þig, og far j burt til
Phrath, og sæk þu þann Linda aptur sem eg
baud þier ad fela þar.
7. Eg gieck burt til Phrath, og groof hann
upp, og took Lindann ur þeim Stad sem Eg
hafde faled hann, og sioa þu! Ad sa Lindenn
var skiemdur, so hann var til einkis framar
meir.
8. Þa skiede Ord DROTTins til mijn,
og sagde.
9. So seger DROTTinn. Eins lijka
þa vil Eg og skiemma þa hina miklu Dramb-
semena Juda og Jerusalem.
10. Þa jllu Þiod sem ecke vill heyra mijn
Ord, Helldur ganga þeir epter sijnum Hiar-
tans Hugþotta, og eptersilgia annarlegum
Gudum, ad þiona þeim og tilbidia þa, Þeir
skulu eins verda, sem sa Lindenn er, hvor ad
ecke duger framar til neins.
11. Þviad lijka so sem þad Madurenn bin-
dur Lindann um sijnar Lendar, eins lijka þa
hef Eg, seger DROttinn, umgyrdt allt
Israels Hus, og þad giervallt Hused Juda
kringum Mig, so ad þeir skylldu vera Mitt
Folk, til eins Nafns, Lofs, og Dijrdar. Enn
þeir vilia ecke heyra.
II. 12. So seg þeim nu þesse Ord, So seger
DROTTinn Gud Israels, Aller Leiglar
skulu fyllast med Vijn, Þa munu þeir segia
til Þijn, Hvor er sa ad hann vite eige þad, ad
aller Leiglarner skulu med Vijne fyllter vera.
13. So seg þu til þeirra, So seger DROttinn,
Sioa þu! Eg vil fylla þa allasamann
sem byggia j þessu Lande, Kongana sem sitia
uppa Davids Stoole, Prestana og Pro-
phetana, og alla Innbyggiarana j Jerusa-
lem, so ad þeir skulu druckner verda.
14. Og Eg vil j sundur dreifa einum sem
ødrum, Fedrunum aasamt med Bornonum,
seger DROTTinn, og Eg vil hvorke spara
edur vægia, nie miskunsamur vera yfer þeirra
Fordiorfun.
15. So heyred nu, og hygged ad þvi, og
treaſſed ecke, Þvi DROTTinn hefur talad
þad.
16. Giefed DROTTne Gude ydrum
Dijrdena, fyrr enn þad mirkt verdur, og aa-
dur enn þad ydrer Fætur reka sig a þau (a)
mirkvu Fiollenn, ad þier vænted Liossens,
þar hann mun þo med øllu giora þad mirkt og
dimmt.

(a) (Mirkvu Fiollenn) Þad er, Þier treysted uppa E-
gyptaland, og vænted ydur Lioss og Luckn af slijkum
Fiollum, enn þau skulu laata ydur epter vera j
Mirkre og Olucku, og ydar Traust skal ydur breg-
dast.

17. Enn vilied þier ecke þetta heyra, þa hly-
tur þo samt mijn Saala heimuglega ad graata
yfer slijkre Drambseme. Mijn Augu þau
hlioota j Taarum ad fliota, þad Hiordenn
DROTTins verdur Hertekenn.
18. Seg þu Kongenum og Drottningun-
ne, Setied ydur nidur, þviad Koronann
Vegsemdarennar er dottenn af yckru Høfde.
19. Staderner mot Sudrenu eru aptur
læster, og þar er sa eingenn sem upp luke þeim,
giorvallt Juda er olldungis j burt flutt.
20. Upplypted ydar Augum, og sioaed,
Hvornenn ad þeir koma hingad af Nordrenu.
Hvar er nu su Hiordenn sem þier var a Hen-
de folgenn, þijn Herlega Hiord?
21. Hvad villtu til segia, nær ed hann
vill so heimsækia þig? Þviad þu hefur vaned

þa so a moote þier, þad þeir vilia vera Hofdingiar og Hofuds-Menn. Hvad gillder þad, ad Angist mun yfer þig koma, so sem eirnrar Jodsiukrar Konu.

22. Og nær ed þu villt so segia j þijnu Hiarta, Hvar fyrer þa mun mig henda soddan? Fyrer Fiølda saker þinna Misgiørda þa er Falldur þijns Klædnadar upp flettur, og þijner Fotlegger nakter giørder (med Vallde.)

23. Kann nockud Bloamadurenn ad skipta um sinn Skinns-Lit, Eda eirn Pardus um sijna Flecke? So kunned þier og so gott ad giøra, af þvi þier erud vaner til hins vonda.

24. Þar fyrer vil eg sundurdreifa þeim, so sem Gras-Strøaum, þau ed fyrer Vinde fiuka af Eydemørkenne.

25. Þad skulu þijn Laun vera, og þijn Hlutdeild, sem eg hefe þier til-mællt, seger DROTTinn. Af þvi þu hefur forgleymt mier, og treyster uppa Lygarnar.

26. Þar fyrer vil Eg og løata eirnenn þijnum Klædsaumum hoatt upp fletta a mote þier, so ad þijn Blygdan meige vel sioast.

27. Þviad Eg hefe sied þijna Hoordoma, þitt Lauslæte, þijnar O-svijfnar Hooraner, Jaa, þijnar Svijvirdingar, bæde uppa Hædum og Akurlondunum. Vei þier Jerusalem! Nær villtu þo nockurn Tijma verda Hrein?

# XIV. Capitule.

Jeremias spaaer (I) um Hernad og Hallære j Juda (II) Hversu sem Fals-Prophetar tale um Frid og ar-Sæln.

I. Þetta er þad Orded sem DROTTinn sagde til Jeremia, ut af Hallæris-Tijdenne.

2. Juda hun liggur herfelegana, hennar Borgarhlid standa aumlega, þad geingur saargrætelega til j Landenu.

3. Og þar er eirn mikell Þurkur j Jerusalem, Hiner stooru senda þa hina smoau epter Vatnenu, Enn nær ed þeir koma til Brunnsins, þa finna þeir ecke neitt Vatn, og þeir bera sijn Kier toom aptur. Þeir ganga Sorgfuller og Harmþrungner, og vefia um sijn Høfud.

4. Þar fyrer, ad Jordenn j sundur springur, af þvi þad rigner ecke a Jordena, Akurkarlarner ganga Sorgbitner, og vefia um sijn Høfud.

5. Þviad eirnenn Hindurnar, sem Kielfa a Skogunum, yfergiefa Kalfana, af þvi þar vex ecke neitt Gras.

6. Villudyrenn standa a Hædunum, og snapa epter Vedrenu, so sem þad Drekarner og giefast upp, af þvi ad þar vaxa ecke neinar Jurter.

7. Ah DROTTinn! Vorer Misgiørningar hafa þad vel forþienad, enn Þu hialpa þo fyrer þijns Nafns saker! þviad vor Ohlydne er mikel, med hvorre vier hofum syndgast a mote þier.

8. Þu ert Jsraels Huggunar-Traust, og þeirra Naud-Hialpare, þvi hegdar þu þier so, lijka sem ad værer þu eirn Giestur j Landenu, og so sem eirn (a) Framande Mann, hvor ed þar ecke dvelst nema um Nætursaker?

(a) (Framande) Þu helldur þig so sem eirn Giest og Tilkomande, Af þvi ad þu hyrder ecke um oss, og syner ecke Magt þijna til ad hialpa oss.

9. Hvar fyrer hegdar þu þier so sem eirn Ofluguur Mann Huglaus, og sem eirn Rise sem ecke kann Hialp ad veita? Þu DRottinn ert þo a medal vor, og vier heitum epter þijnu Nafne, Yfergief þu oss ecke!

10. So seger DROTTinn um þetta Folk, Þeir hlaupa giarnann hingad og þangad, og eru ecke giarnann heima, þar fyrer þa þocknast þeir ecke DROttne, helldur minnest hann nu a þeirra Misgiørning, og vill heim vitia þeirra Synda.

11. Og DROTTinn sagde til mijn, Þu skallt ecke beidast Lijknar fyrer þetta Folk.

12. Þvi þo ad þeir enn fostudu, þa vil Eg þo ecke helldur heyra þeirra Bæn, og þo þeir bere enn framm Brenne-Foorner og Mat-Offur, þa þocknast þeir þo Mier ecke. Hell-

Helldur vil Eg j burt slijta þa medur Sverde, Hungre og Drepsott.

II. 13. Pa sagde eg, Ah, DROTTinn DROTTinn! Sioa þu, Prophetarner segia þeim, Eingenn Sverd munud þier sioa, og ecke neit Hallære hafa j hioa ydur, helldur mun eg giefa ydur godann Frid j þessum Stad.

14. Og DROTTinn sagde til mijn, Þeir Prophetar spaa falskelega j mijnu Nafne, Eg hefe ecke utsendt þa, og ecke boded þeim þad, og eige talad vid þa, þeir Predika fyrer ydur falskelegar Sioner, Utþydingar, Afgudadijrdkaner, og sijn Hiartans Svikræde.

15. Þar fyrer seger DROTTinn so, Um þa Prophetana sem spaa j Mijnu Nafne, þa sem Eg hefe þo ecke utsendt, og þeir Predika samt, þar skule ecke neitt Sverd, nie nein Hallæris-Tijd koma j þetta Land. Soddan Prophetar skulu deya fyrer Sverde og Hungre.

16. Og þad Folk sem þeir spaa þessu, skulu liggia af Sverde og Hungre, hier og hvar a Strætunum j Jerusalem, so ad eingenn mun greftra þa, Lijka eirnenn þeirra Kvinnur, Syner og Dætur, og þeirra Illsku vil Eg so utausa yfer þa.

17. Og þu skallt segia þeim þetta Ord, Mijn Augu þau fliota j Taarum Dag og Nott, og linna ecke, þviad su Jungfruenn Dotturenn mijns Folks er hrædelegana plaagud, og aumlegana sleigenn.

18. Gange eg ut a Volluna, Sioa þu, So liggia þar þeir ed j Hel slegner eru med Sverdum, Kome eg jnn j Stadenn, þa liggia þar þeir sem maattlauser eru af Hungre. Þviad þeir Prophetarner, og eirnenn lijka Prestarner hliota j burt ad fara j eitt annad Land, hvert ed þeir þeckia ecke.

19. Hvort hefur þu þa j burt kastad Juda? Eda hefur þijn Saala Vidbiod til Zion? Hvar fyrer hefur þu þa sleiged oss so, þad eingenn kann ad lækna oss? vier vonudum, ad þad skyllde Fridur vera, þa kom þar eckert gott, vier vonudum þad vier skylldum Heilbrigder verda, Enn sioa þu, ad þa er þar enn meire Skade.

20. DROttinn! Vier medkiennum vort Ogudlegt Athæfe, og Misgiorder vorra Forfedra, þviad vier høfum syndgast a mote þier.

21. Enn fyrer þijns Nafns saker, þa laattu oss ecke til Skammar verda. Laattu ecke þad Tignar-Sæted þinnar Dijrdar spottad verda, Minnstu a þad, og laat þinn Saattmaala ecke Enda taka vid oss.

22. Þar eru þo þeir ongver Afguder a medal Heidingianna, sem Doggena kunna ad giefa, So kann og Himenenn ei helldur ad rigna. Þu ert þo Sa DROttinn Vor Gud a hvorn vier vonum, þviad þu kannt allt þetta ad giora!

# XV. Capitule.

DRottenn vill (I) leida Ogiæfu yfer Juda Folk, En (II) giora Farsælann Enda a Jmsu Motlæte Jeremiæ.

I. Og DROTTinn sagde til mijn, Og enn þo ad Moses og Samuel þeir stæde framme fyrer Mier, þa hefe eg þo ecke neitt Hiarta til Folks þessa. Rek þa j burt fra mier, og laattu þa hiedann fara.

2. Og ef þeir segia til þijn, Hvort skulum vier hiedann? Þa seg þu til þeirra, So seger DROTTinn, Sa ed deya skal hann kome þar til, Sa sem under Sverded skal hann kome þar til, Sa sem Hungra skal hann kome þar til, Sa sem Fangadur skal vera hann kome þar til.

3. Þviad Eg vil vitia þeirra med Fiogra handa (a) Plaagum, seger DROTTinn, medur Sverde, so ad þeir skulu j hel slegner verda, medur Hundum, sem þa skulu slijta, med Fuglum Himensins, og Dyrum a Jordunne, so ad þeir skulu upp etast og rotna.

(a) J þeim Ebreiska Textanum kallar hann þessar Fiorar Plagur, Fiorar Familias edur Ætter, kan skie til ad þviisa þar med, ad eirn Diofull hefur marga

Dioſla under ſier, og ad ein Plaaga hefur ad-ſkilianlegar Tegunder og Maata, til ad fordiarfa, ſo ſem Læknarar reyna daglega.

4. Og Eg vil laata j burt drijfa þa hingad og þangad um øll Kongarijke a Jordunne, ſaker Manaſſe, Sonar Ezechie, Konungſins Juda, vegna þeſs er hann hafde giort til Jeruſalem.

5. Hvør vill þier þa Miſkunſamur vera þu Jeruſalem? Hvør mun þa Medaumkun hafa med þier, Hvør mun þa j burt ganga og utvega þier Frid?

6. Þu hefur yfergiefed mig, ſeger DROttinn, og ert fra fallenn fra mier, þar fyrer hefe Eg utriett mijna Hond a mote þier, ſo þad Eg vil fordiarfa þig. Eg er þreyttur miſkunſamur ad vera.

7. Eg vil medur Vindſkuplunne j burt kaſta þeim ur Landenu, og Eg vil mitt Folk, þad ſem ecke vill ſnua ſier j burt fra ſijnum vondum Vegum, giora med øllu Fodurlauſt, og fyrerkoma þvi.

8. Fyrer mier ſkulu fleyre Eckiur verda a medal þeirra enn þad Sandurenn er vid Siaafar-Strondu, Eg vil laata eirn aug-lioſlegann Fordiarfara koma yfer Mædurnar þeirra ungu Mannſkapar-Mannanna, og laata Stadenn ſkyndelegana og o-forvarande yfer fallaſt.

9. So ad hun ſem Sio Børn hefur ſkal aumleg vera, og ut af Hiarta andvarpa. Þviad hennar Sool ſkal þegar a biortum Deige under ganga, ſo þad bæde hennar Frægd og Fagnudur ſkal eirn Enda hafa, og þa ſem afgangs eru vil Eg giefa under þeir-ra Ovina Sverd, ſeger DROttinn.

10. Auvi mijn Moder! ad þu fædder mig, a moot hvorium hvor Madur j øllu Landenu deiler og þræter. Eg hefe hvorke jnnteked nie utlaated med Okre, þo bolvar mier hvor Madur.

11. DROttinn ſagde, Nu vel, Eg vil nockrum af ydur epter hallda, þeim ed aptur ſkal vel ganga, og Eg vil ydur til Hialpar koma j Neydenne og Þreyngſlunum a medal Ovinanna.

12. Meinar þu ecke, ad þar ſie einhvør-ſtadar eitt (b) Jaarn, ſem j ſundur kunne ad ſlaa þad Jaarned, og þann Koparenn af Nordrenu?

(b) (Jaarn) Eirn Illur yfer ødrum, þeir Perſar framm yfer Chaldeos.

13. Enn Eg vil aadur fyrer framm giefa ydar Gots og Fiaarſiodu ad Herfaange, ſo ad þier ſkulud ecke neitt faa þar fyrer, og þad ſama fyrer allra ydar Synda Saker, ſem þier hafed framed j øllum ydar Landamer-kium.

14. Og Eg vil flytia ydur til Ovina yd-varra, j eitt Land ſem þier þecked ecke, þviad Elldurenn er upptendradur yfer ydur j min-ne Reide.

II. 15. Ah DROttinn! Þu veitſt þad, Minnſtu vor, og haf Umſorg fyrer oſs, og hefn þu vor a vorum Oſſoknurum. Tak oſs ad þier, og drag eige undann þijna Reide vidur þa, þviad þu veitſt þad vier verdum forſmaader þinna vegna.

16. Enn þitt Ord er funded, og eted af mier, og þad ſama þitt Ord er vor Hiartans Glede og Huggun. Þvi vier erum nefnder epter þijnu Nafne, DROttinn Gud Ze-baoth!

17. Vier ſamlogunſt eige vid Haadungar-Mennena, Nie glediunſt helldur med þeim. Helldur erum vier einer fyrer þinne Hende, þviad þu giorer þig oſſa-reidann vidur oſs.

18. Hvar fyrer þa varer vor Pijna ſo leinge? Og vor Saar eru ſo med øllu vond, þad eingenn kann ad græda þau? Þu ert oſs ordenn ſem einn Brunnur, ſem ecke vill lein-gur Uppſprettu-Vatn giefa.

19. Þar fyrer ſeger DROttinn ſo, Ef ad þu helldur þier til mijn, Þa vil Eg hallda mier til þijn, og þu ſkallt vera minn Predika-re, Og (c) ef þu kienner hinum Riettlaata, ad ſkilia ſig j burt fra þvi illa Folke, þa ſkalltu vera

vera minn Kiennare. Og fyrr enn þu skylldet falla til þeirra, þa skulu þeir falla til þijn.

(e) (Ef) Ebr. Kunner þu ad greina þad hid kostulega, fra þvi sem ecke duger, þa skalltu vera so sem minn Munnur.

20. Þviad Eg hefe giort þig ad einum oruggvum Kopar-Mur, j giegn þessu Folke. Þo ad þeir strijde a mote þier, þa skulu þeir þo ecke yfervinna þig, Þviad Eg er hiꜳ þier, so ad Eg vil hiꜳlpa þier, og frelsa þig, seger DRottinn.

21. Eg vil og eirnenn leysa þig af Hende þeirra hinna Illskufullu, og frelsa þig af Vallde Tyrannanna.

# XVI. Capitule.

Drottenn bannar Jeremias (I) ad gipta sig; (II) Ad gꜳnga inn i Hus hvar Lijk være; Og (III) til Veitslu; Þviad (IV) Drottenn ætlade ad senda Olucku yfer Juda Land.

I. Og Ord DRottins þad skiede til mijn, og sagde.

2. Ongva Konu skalltu þier til Eignar taka, og hvorke Syne nie Dætur gieta j þessum Stad.

3. Þviad so seger DROTTinn af þeim Sonum og Dætrum sem fædast j þessum Stad, og eirnenn af Mædrunum þeirra sem þau fæda, og af Fedrunum þeirra sem þau gieta j þessu Lande.

4. Þau skulu deya af Soott, og þau skulu hvorke hormud nie Jordud verda, helldur skulu þau ad Saurendum verda j Landenu, þar ad auk fyrer Sverde og Hungre fyrerfarast, og þeirra Lijkamer skulu Fuglum Loptsins og Dyrum Jardarennar ad ꜳtu verda.

II. 5. Þviad so seger DRottinn, Þu skallt ecke ganga j Hriggdar-Hused, og eige skalltu fara nockurstadar ad grꜳta, nie ad hafa Samhormung yfer þeim. Þviad Eg hefe j burt teked minn Frid j fra þessu Folke, seger DROTTinn, Lijka eirnenn mijna Nꜳd og Miskunseme.

6. So ad bæde Storer og Smꜳer skulu deya j þessu Lande, og verda hvorke Jardader nie Harmdander, og eingenn skal sundurreyta sig, nie giora sig Skollottann yfer þeim.

7. Og ei skulu Menn a medal þeirra yfer Harmakloguninne (a) utskipta, þeim til Huggsvolunar yfer Lijkenu, og ei giefa þeim af Huggunar Bikarnum ad drecka epter Fodur og Modur.

(a) (Utskipta) Braude, Mat, edur odru þvilijku.

III. 8. Þar fyrer skalltu ecke jnnganga j nockurt Dryckiu Hus, til ad sitia hiꜳ þeim, hvorke til ad eta nie drecka.

9. Þviad so seger DROTTinn Zebaoth Gud Israels, Sioa þu! Eg vil burt taka i þessum Stad fyrer ydar Augum, og ad ydur Lifondum, Raustena Gledennar og Unadsemdarennar, Raustena Brudgumans og Brudarennar.

10. Og nær ed þu hefur nu sagt þessu Folke allt þetta, og þeir segia til þijn, Hvar fyrer mæler DROttinn yfer oss alla þessa stooru Ogiæfu? Hvor er sa Misgiorningur og su Synd, þar ed vier hofum med syndgast a mote DROTTne Gude vorum?

11. Þa skalltu segia þeim, Þar fyrer, ad ydrer Fedur yfergꜳfu mig (seger DROTTinn) og eptersilgdu annarlegum Gudum, þionudu þeim og tilbꜳdu þa, enn Mig yfergꜳfu þeir, og hiellldu ecke mitt Logmꜳl.

12. Og þier giored þad enn verr enn ydrer Forfedur, Þviad sioa þu! Ad hvor lifer epter sijnum vonda Hiartans Þootta, so ad hann hlyder Mier ei.

13. Þar fyrer vil Eg utdrijfa ydur af þessu Lande, burt j þad Land sem hvorke þier nie ydrer Forfedur af vita, þar skulud þier þiona annarlegum Gudum Dag og Nott, þar vil Eg ongva Nꜳd audsyna ydur.

IV. 14. Þar fyrer sioa þu! Sa Tijme kiemur, seger DROTTinn, þad ecke skal framar sagt vera, So sannarlega sem DROTTinn lifer, Sa ed utleidde Israels Born af Egyptalande.

15. Helldur, So Sannarlega sem DRottinn lifer, Sa sem utleidde Jsraels Born af þvi Nordurlandenu, og ur ollum þeim Londum sem hann hafde j burt reked þa, Þviad Eg vil jnn flytia þa aptur j þad Landed, sem Eg hefe giefed þeirra Forfedrum.

16. Sioo þu! Eg mun allmarga Fiske-Menn utsenda, seger DROTTinn, þeir skulu veida þa, og þar epter vil Eg utsenda marga Veide-Menn, þeir skulu noo þeim, uppa ollum Fiollum, og uppa ollum Hædum, og j ollum Biargskorum.

17. Þviad mijn Augu oolyta alla þeirra Vegu, so ad þeir kunna ecke ad dyliast fyrer mier, og þeirra Misgiorningur er ohulenn fyrer mijnum Augum.

18. Enn oodur fyrre þa vil Eg þeirra Misgiorning og Synd Tvofolldu launa, fyrer þad, ad þeir saurgudu mitt Land medur (b) Lijkunum sinna Afguda, og uppfylldu mijna Arfleifd medur sijnar Svijvirdingar.

(b) (Lijkunum) Ad þeir offrudu morgum Bornum, og brenndu þau fyrer Moloch.

19. DROTTinn! Þu ert minn Stirkur og Kraptur, og mitt Athvarf j Neydenne. Hiner Heidnu munu til þijn koma j fra Enda Veralldarennar, og segia, Vorer Forfedur hofdu Falska og Fooafeingelega Gude, sem ecke kunna ad hiaalpa.

20. Hvernenn kann eirn Madur Gude ad giora, þa sem ecke eru Guder?

21. Þar fyrer, Sioo þu! Ad nu vil Eg kienna þeim, og kunngiora þeim mijna Hond, og Vellde, so ad þeir skulu formerkia þad Eg heite DROTTinn.

## XVII. Capitule.

Jeremias (I) straffar þa miklu Afguda-Dijrdkan Gydinga; (II) Bydur þeim ad treysta Drottne, og (III) aaminner þa ad hallda Sabbathsdagenn Heilagann.

I. (a) Syndenn Juda er med Jaarnstijl og med hvossum Adamas skrifud, og ut grafenn a þeirra Hiartans Spiolldum, og uppa þeirra Alltaris-Hornum.

(a) (Syndenn) Þad er, Þeirra Afgudadijrdkun situr giarna þeim fast framm, og stifta hana sterklega, ad hun skule vid halldast hiaa Epterkomendunum so sem Messur hiaa oss.

2. So ad þeirra Bornum skule til Hugar koma þau Olltorinn, og Lundarner j hiaa þeim Blomgudu Trioonum, uppa Haafiollunum.

3. Enn Eg vil giefa þijnar Hæder, bæde a Fiollunum og a Sliettlendenu, med ollu þijnu Gotse og Fioarsiodum, til Herfangs, fyrer þinna Synda Saker, sem þu hefur giort jnnann allra þinna Landamerkia.

4. Og þu skallt utrekenn verda af þinne Arfleifd sem Eg gaf þier, og Eg vil giora þig ad Þræle Ovina þinna, j einu Lande sem þu þecker ecke, Þviad þier hafed upptendrad eirn Elld minnar Reide sem brenna mun eylijflega.

II. 5. So seger DROTTinn. Bolvadur er sa Madur sem hefur sitt Traust a Mannenum, og helldur Hollded fyrer sinn Arm, og j burt vijkur fra DROTTne med sijnu Hiarta.

6. Hann mun vera so sem annad Lijng a Eydemorkenne, og mun eige sioo þa tilkomande Huggun, Helldur mun hann vera j (b) Þurknum j Eydemorkenne, j einu ofriossomu Lande, þar ed eingenn bygger.

(b) (Þurknum) Þad er, Hann skal vera vesæll. Psal. 1, 3.

7. Enn Blessadur er sa Madur sem treyster a DROTTinn, og hann sem ad DROTTinn er hans Von.

8. Hann er lijka sem eitt Trie sem ad Groodursett er j hiaa Vatnenu, og vid Lækenn er Rootfest. Þvi þo ad Hitenn kome, þa er hann þo ecke hræddur um sig, Helldur eru hans Laufblod græn, og kvijder ecke vid þa ad Þerre-aared kiemur, helldur færer hann Avoxt O-aflaatanlega.

9. Hiartad (c) er Metnadar-fullur og Orvinlunarsamur Hlutur, Hvor kann ad rannsaka þad?

(c) (Hiartad) Gange jlla, þa er þad Vijlsamt og efasamt, Gange vel, þa er Metnadur og Offtake.

Vill øngva aavijtan lijda, og etc. Kann vel ad snicka og prýda sig, lijka a moote Guds Orde, enn þad hiaalpar ecke.

10. * Eg DROTTinn kann Hiartad ad rannsaka, og Nijrunn ad proofa, og Eg gief einum sierhvørium epter siinum Giørninge, epter Avextenum sinna Verka.

* Opinnb: B: 2, 23.

11. Þviad lijka sem sa Fugl er liggur a Eggium og klekur þeim ei ut, Eins Lijka er sa sem rangfeinged Fie til samans dregur, Þvi hann hlytur þar j fra, þegar hann minnst vaarer, og hlytur þo ad Sijdurstunne Daaruskap þar til ad hafa.

12. Enn sa Stadurenn vors Helgedoms, sem er, Tignar-Sæted Guds Dijrdar, þad hefur alla Tijma stadfast vered.

13. Þviad þu DROTTinn! ert Israels Von, Aller þeir sem þig yfergiefa þeir hliota til Skammar ad verda, og þeir hiner frafollnu skulu j Jordena skrifast, Þviad þeir yfergaafu DROTTinn, sem er Uppspretta hins Lifande Vatnsins.

14. DROttinn! Lækna þu mig, þa verd eg Heilbrigdur, Hiaalpa þu mier, þa em eg Holpenn, þviad þu ert minn Lofstijr!

15. Siaa þu! þeir segia til mijn, Hvar er þa þad Ord DROTTins? Kiære, Laattu þad koma hingad.

16. Enn þar fyrer flyde eg ecke fra þier, Þu mijn Hiord. Eg hefe og ecke gyrnst a (d) Dag Mannsins, Þad veitstu, Hvad eg hefe predikad þad er riettferdugt fyrer þier.

(d) (Dag Mannsins) Þad er Lof hiaa Mønnum, Hvørier þo eru aumer, og eckert j sinne Hroosun j Life edur Døgum.

17. Vertu ad eins ecke hrædelegur vid mig, þu Mitt Athvarf j Neydenne! Laattu þa til Skammar verda sem mig offsækia, enn eige mig.

18. Laattu þa skielfast enn eige mig, Laattu Olucku-Dagenn koma yfer þa, og j sundur slaa þa Tvøfalldlega.

III. 19. So seger DROTTinn til mijn, Far burt, og stattu j Borgarhlidenu Folksins, um hvørt þad Kongarner Juda ganga ut og jnn, og j øllum Borgarhlidum Jerusalem, Og seg þu til þeirra.

20. Heyred Ord DROTTins, þier Konungar Juda, og giørvøll Juda, og aller Innbyggiararner j Jerusalem, sem jnn ganged um þesse Borgarhlid!

21. So seger DROTTinn, Vared ydur, og bered øngva Byrde a Sabbaths-Deigenum j giegnum Jerusalems Borgarhlid.

22. Og flytied øngvann Byrdar-Punga ut af ydar Husum a Sabbaths-Deigenum, og fremied eckert Erfide, helldur Helged Sabbaths-Dagenn so sem þad Eg hefe boded ydar Forfedrum.

23. Enn þeir heyra þad eige, og hneigia ecke sijn Eyru, helldur blijfa þeir hardsvijrader, so ad þeir skule ecke Mier heyra, nie laata sig leidrietta.

24. Ef þier heyred mier, seger DROttinn, so ad þier bered øngvann Byrdar-Punga a Sabbaths-Deigenum j giegnum þesse Borgarhlidenn, helldur helged þann hinn sama, so ad þier giøred ecke neitt Verk a þeim sama Deige,

25. Þa skulu og eirnenn um þesse Stadar-Portenn ganga ut og jnn Konungar og Høfdingiar, (þeir sem sitia a Davids Stoole) Rijda og renna bæde a Vøgnum og Hestum, þeir og so þeirra Høfdingiar, med øllum þeim sem bua j Juda og Jerusalem, Og þesse Borg skal þa byggiast æfennlega.

26. Og þeir munu koma ut af Stødunum Juda, og þeim sem hier liggia j kringum Jerusalem, og ur BenJamins Lande, ur Dølunum og Fiallbyggdunum, og af Sudrenu, sem færa Brenne-Offur, Offraner, Mat-Offur og Reykelse, til þess Hussens DROttins.

27. Enn ef þier heyred Mier ecke, so þad þier Helged Sabbaths-Dagenn, og bered ei neinn Byrdar-Punga jnn um Borgar-Hlidenn j

Jerusalem a Sabbaths-Deigenum, þa vil Eg uppkveikia eirn Elld j hennar Borgar-Hlidum, sa ed forenda skal Husunum j Jerusalem, og hann skal ecke utslöckvast.

## XVIII. Capitule.

Jeremias (I) bodar Gydingum Guds Straff; og (II) Talar um þeirra Roog og Bakmælge i gegn sier.

I. Þetta er þad Orded sem skiede af DROttne til Jeremia, og sagde.

2. Statt upp og gack ofan j Hus Leirkiera-Smidsins, þar vil Eg laata þig heyra mitt Ord.

3. Og eg gieck ofan j Hused Leirkiera-Smidsins, og sioa þu, hann erfidade þann sama Tijma a Hiolenu.

4. Og sa Potturenn sem hann var ad giora af Leirnum sundur brotnade j hans Höndum, þa giorde hann eirn annann Pott aptur, sem honum þocknadest.

5. Pa skiede Ord DROTTins til mijn og sagde.

6. Kann Eg ecke eirnenn so ad giora vid ydur, þier af Huse Israels! so sem ad þesse Leirkiera-Smidur? seger DROttinn, Sioa, * Lijka sem þad Leirenn er j Leirkiera-Smids Hende, Eins þa erud þier og so af Israels Huse j Minne Hende. * Rom: 9, 21.

7. Skyndelega tala Eg a moote eirnre Piod og Kongs-Rijke, þad Eg vilie uppræta, sundur briota, og fordiarfa þad.

8. Enn ef þad snyr sier j burt fra sinne Vondsku, a moote hvorre Eg tala, þa skal mig eirnenn angra þa Ogiæfu sem eg hugde ad giora þeim.

9. Og snarlega tala Eg um eina Piod og Kongs Rijke, þad Eg vilie uppbyggia og groodursetia þad.

10. Enn ef þad giörer jlla fyrer mijnum Augum, so ad þad hlyder ecke Minne Raust, þa skal Mig og eirnenn angra þad hid Goda, sem Eg hafde fyrerheited þeim ad giora.

11. So seg þu nu til þeirra j Juda, og til Borgar-Mannanna j Jerusalem, So seger DROTTinn, Sioa þu, Eg tilby ydur eina Ogiæfu, og hefe eirn Hugarþancka a moote ydur. Par fyrer snue sier hvor sem eirn j burt fra sijnu vondu Athæfe, og bæted ydar Breytne og Giörninga.

12. Enn þeir segia, (a) Par verdur ecke af, vier viliunn ganga epter voru sioalfs Hugbode, og giöra hvor epter sijns vonda Hiarta Hugarþanka.

(a) (Par verdur ecke af,) edur, Vier laatum þad bijda.

13. Par fyrer seger DROTtinn, Spyried epter a medal Heidenna Pioda, Hvor ad nockurn Tijma hefur heyrt soddan, þad Jungfruenn Israel giörer so Stora Svijvirdelega Hlute.

14. Sniorenn er þo leingur a Steinunum j Morkenne, nær ed þad snioar hier ad ofan j fra Libanon, og Regn-Vatned rennur ei so snöggt j burt, so sem þad Mitt Folk forgleymer Mier.

15. Peir veyfa Reykelsenu fyrer Gudunum, og uppbyria so Hneixlaner a sijnum Vegum æfenlega, og ganga a (b) O-trodnum Vegum.

(b) (Otrodnum) Pad er, Peir þiena annarlegum Gudum, hvoria þeirra Fedur hafa ecke þeckt, og þeir hafa vered þeim oveniulegur Hlutur, so sem eirn otrodenn Vegur.

16. So ad þeirra Land verde j Eyde lagt, þeim til æfenlegrar Skammar, so ad hvor sem þar geingur framm hioa skal undrast þad, og hrista Hofuded.

17. Pviad Eg vil so sem med einum Austanvinde j sundur dreyfa þeim fyrer þeirra Ovinum. Eg vil syna þeim Baked, enn ei Andlited, nær ed þeir fordiarfast.

II. 18. Enn þeir segia, Komed og tokum Road a mote Jeremia, þviad Prestarner kunna ecke villt ad fara j Logmaalenu, og þeir hiner Vijsu kunna ecke ad (c) bregdast Road ad giefa, og þeir Prophetarner kunna ei oriett ad kienna. Komed hingad, Laatum oss drepa hann med Tungunne, og giefa ongvann Gaum ad ollu þvi ed hann talar.

(c) (Bregdast) Pad heiter, Peir hafa Embætted af Gude,

Gude, so sem Vorer og so segia, Kyrkiann, Kyrkiann kann ecke villt ad fara.

19. DROttinn! Gief Þu Giætur ad mier, og heyr þa Raustena minna Motstødu Manna.

20. Er þad riett, ad Madurenn laune Gott med Illu? Þviad þeir hafa grafed eina Grøf minne Saalu, Hugleid þad, Hvørnenn eg hefe framme staded fyrer þier, til ad tala þeirra ed besta, og snua þinne Grimmdar-Reide j burt fra þeim.

21. Fyrer þad straffa nu þeirra Børn med Hungre, og laat þa j Sverd falla, so ad þeirra Kvinnur og Eckiur verde Barnlausar, og þeirra Menn j Hel slaaest, og þeirra Æsku-Menn medur Vopnum veigest j Strijdenu.

22. So ad eitt Hliod heyrt verde ur þeirra Husum, hvørsu skyndelegana ad Þu hefur laated Strijds-Mennena yfer þa koma. Þviad þeir hafa grafed eina Grøf til ad veida mig j, og lagt Snørur fyrer mijnar Fætur.

23. Og med þvi, DROTTinn! ad þu veitst allann þeirra Asetning a møte mier, ad þeir vilia aflijfa mig, þa (d) fyrergief þu þeim ecke þeirra Vondsku, og laat ecke þeirra Synder afmaadar verda fyrer þier, Laattu þa verda nidur slegna fyrer þier, og breyt vidur þa epter þinne Reide.

(d) (Fyrergief ecke) Þad er, Laat þier ei þocknast þeirra Athæfe, og stirktu þa ei.

## XIX. Capitule.

Jeremias seger Jerusalems Innbygginrum fyrer, ad þeir ætte herfelega ad fyrerfarast og leggiast j Eyde Vegna þeirra Dæmalausrar Afguda-Dijrdkunar, og annra Synda.

So seger DROTTinn, Gack burt, og kaup þier eirn Leirpott af Leir-Smidnum, med nockrum ut af Ølldungunum Folksins, og ut af hinum Ellstum Prestum.

2. Og gack ut j Ben Hinnoms Dal, sem liggur fyrer utann Tigulsteins Ported, og Predika þar þau Ordenn, sem Eg sege þier.

3. Og seg, Heyred Ord DROTTins Þier Konungarner af Juda, og Borgarmenn j Jerusalem! So seger DROttinn Zebaoth, Gud Israels, Sioaed, Eg vil laata soddan Ogiæfu ganga yfer þennann Stad, ad hvør sem þad heyrer, þad skal syngia j hans Eyrum.

4. Þar fyrer, ad þeir forlietu Mig, og gaafu einum annarlegum Gude þennann Stad, og hafa þar inne veyfad Reykelse fyrer annarlegum Gudum, sem hvørke þeir nie þeirra Forfedur, nie Konungarner Juda hafa þeckt, og hafa uppfyllt þennann Stad med saklausu Blode.

5. Þvi þeir hafa Baal Hæder uppbyggt, til ad brenna sijn Børn, Baal til Brenne-Offurs, Hvad Eg hefe hvørke boded þeim, nie nockurn Tijma þar ut af sagt, þar med kom þad alldrei j mitt Hiarta.

6. Þar fyrer sioa þu, Sa Tijme mun koma, seger DROTTinn, þad þesse Stadur skal ecke framar meir kallast Thopheth, nie Ben Hinnom Dalur, heldur mun hann Draaps-Dalur heita.

7. Þviad Eg vil þa (a) Guds Þionustuna Juda og Jerusalem j þessum Stad nidur briota, og vil laata þa falla fyrer Sverde, fyrer sijnum Øvinum, under þeirra Hende, sem sækia epter þeirra Lijfe, og þeirra Lijkame vil Eg Fuglum Himensins og Dyrum a Jordunne ad aatu giefa.

(a) (Guds Þionustuna) Ebr. Raad. Spaamennerner kalla Afgudadijrdkunena, eda Falska Guds Þionustugiørd, Onytiu og Faafeingelegann Hlut, sem og Christur, Matth. 15. Cap. Item Ogudlegra Raad edur Lærdom, Psal. 1. Item Lyge, Flærd, Svik, etc. Hvad vier høfum utlagt Afgudadijrdkan, ad mestu leite.

8. Og þennann Stad vil Eg leggia j Eyde, og til Haadungar giora, so ad aller þeir sem þar framm hioa ganga, þeir skulu undra sig uppa allar þeirra Plaagur, og giora Spie ad þeim.

9. Eg vil laata þa eta Kioted Sona sinna og Dætra, og hvør þeirra skal eta annars

Holld, j þeirre Naud og Angist, sem ad þeirra Oviner, og þeir ed sækia epter þeirra Lijfe, munu þvinga þa med.

10. Og þu skallt j sundur briota Leir-Pottenn fyrer þeim Mønnum sem ut geingu med þier.

11. Og seg þu til þeirra, So seger DROttinn Zebaoth, Lijka sem ad Madur j sundur brytur Potta-Smidsins Leir-Kier, þad sem ecke kann aptur heillt ad verda,

12. Eins lijka so, þa vil Eg j sundur briota þetta Folk, og þennann Stad, þar til med skulu þeir grafner verda j Thopheth, af þvi, ad þar mun ecke annad Rum til vera ad grafa. So vil Eg umgangast med þennann Stad, og hans Innbyggiara, seger DROttinn, ad Stadurenn skal vera sem Thopheth.

13. Þar med skulu þau Husenn j Jerusalem, og Husenn Konunganna Juda, verda so Ohreinleg sem ad sa Stadurenn Thopheth er. Ja, Øll þau Husenn, þar sem þeir baru Reykelsed uppa Þekiuna, handa øllum Himensins Her, og foornudu annarlegum Gudum Dryckiar-Offre.

14. Og þa Jeremias kom heim aptur fra Thopheth, þangad sem DROTTinn hafde sendt hann ut, til ad spaa, gieck hann inn j Forgardenn hia Huse DROTTins, og sagde til alls Lydsins.

15. So seger DROTTinn Zebaoth, Gud Israels, Sia þu, Eg vil laata koma alla þa Ogiæfu yfer þennan Stad, og yfer alla hans Stade, so sem þad Eg hefe tadur umrædt a mote hønum, af þvi, ad þeir eru Hardsvijrader, og vilia ecke heyra mijn Ord.

(Ben Hinnom Dalur) Ben Hinnom hefur vered eitt fagurt lystelegt Dalverpe, hardt nær Jerusalem, hvørs ad gietur, Jos. 15. Cap. J þessum Dal hafa þeir sijdann eina vijdfræga Guds Þionustugiørd stilltad, þvi Lyra seger, yfer 23. Cap. Levit: Ad Israels Syner hafe j þessum Dal brennt og offrad sijn Børn Skurgodenu Moloch, Moloch var eitt Lijkneske af Kopar, holt hid innra, þad uppgylltu þeir med Elld, og løgdu Børnenn j Fang þvi, og letu þau brenna, Enn Prestarner giørdu Ohliod med Biøllum og Bumbum og ødrum Hliodfærum, so Foreldrarner heyrdu ecke Græt Barnanna, Af þessum Ben Hinnom giøra Spaamenner eitt vidurstyggelegt Nafn, Og Christus, Matth. 5. og 16. dregur þar af Gehenna, þad er Helvijtskur Elldur, þennann Dal hafa þeir sijdann Thopheth kallad, og þydest Hlioda Hus, edur Hlioda Kyrkia, og Esaias 30. Cap. tilreiknar Kongenum af Assur slijka Grøf, þad er, ad hann skule j Helvijte brenna. (Sia Jerem: 7,31. it: 2 og 6 V: þessa Cap:)

# XX. Capitule.

Underþricking giører Hyggenn Mann Galenn; Pred. 7, 8.

Enn þa ed Pashur Prestur, Sonur Immers Prests, sem ad settur var til Hofdingia j Huse DROTTins, heyrde, ad Jeremias spaade þessum Ordum,

2. Þa sloo hann Jeremiam Propheta, og kastade hønum inn j Hvolfed under þvi hærsta Portenu BenJamins, sem er hia Huse DROTTins.

3. Og ad Morgne Dags, tok (a) Pashur Jeremiam burt ur Hvolfinu, Þa sagde Jeremias til hans, DROTTinn kallar þig ecke Pashur, helldur Magor allt um kring.

(a) (Pashur) Kiemur af Pas, þad heiter Breidur, og Hur, hvijtur, enn Magor þyder Otta, so umsnyr Jeremias hans Nafne, so sem hann hefde sagt, Þu skallt ecke ganga framm so stor, breidur, hvijtur, so sem þitt Nafn hliodar, helldur skal Otte og Skielfing vera allt j kringum þig, svo þar skal verda þraungt nog, og svart um þig.

4. Þviad so seger DROTTinn, Sia þu, Eg vil giefa þig og alla þijna Vine j Hrædsluna, og þeir skulu falla fyrer Sverde Ovina sinna, þad hid sama skalltu sia med þijnum Augum. Og Eg vil giefa Giørvallt Juda j Hønd Konungsins af Babylon, hann skal burt flytia þa til Babylon, og med Sverde drepa.

5. Og so eirnenn allt Gotsed þessa Stadarins, med øllu þeirra Verksmijde, og øllum Dyrmætum Gripum, og allann þann Fiaarsiod Konganna Juda, þa vil eg giefa j

þeirra Ovina Hendur, so ad þeir skulu ræna þvi, taka þad og flytia til Babylon.

6. Og þu Pashur, med ollu þijnu Heimfolke, skallt Hertekenn ganga, og j Babylon koma, þar skalltu deya, og jardadur verda, med ollum þijnum Vinum, hvorium ed þu predikar Lygena.

7. DRottinn! Þu hefur (b) yfertalad mig, og eg hefe laated yfertala mig, þu ert mier ofoflugur ordenn, og þu hefur unned. Enn eg er daglega fyrer þad sama ad Haadungu ordenn, og hvor Madur þa daarar mig.

(b) (Yfertalad mig) Ad eg hefe teked ad mier Predikunar Embætted, og eg visse ecke, ad Folked var so illt, og ad þar filger so mikel Hætta med þvi ad predika.

8. Þviad sijdann þad eg talade, kallade og predikade ut af þeirre Ploagunne og Foreydslunne, þa er mier þad Ord DRottins daglega vorded til Haadungar og Daaruskapar.

9. Þa þeinkta eg, Nu vel! Eg vil ei leingur minnast Hans, og predika ecke meir j Hans Nafne. Enn þad vard j mijnu Hiarta, so sem þad eirn logande Elldur hefde þar jnne luktur vered, j mijnum Beinum, so ad eg kunne ecke ad lijda þad, og eg var so nær forgeingenn.

10. Þviad eg heyre Hvorsu marger straffa mig, og hræda mig alla vega, Aklaged hann aakaflegana, vier vilium aaklaga hann (segia aller mijner Viner og Stallbrædur) ef ad vier giætum so fyrerkomed honum, komist ad honum, og hefnt vor a honum.

11. Enn DRottinn er hiaa mier, sem eirn oflugur Kappe, Þar fyrer munu mijner Offsoknar-Menn falla, og ecke Sigur vinna, helldur munu þeir miog skammader verda, af þvi þeir breyta so fraavijslegana, æfennleg mun su Skomm vera, hvorre ad ecke mun forgleymt verda.

12. Og nu DRottinn Zebaoth! sem provar hinn Riettferduga, Þu sem sier Nijrunn og Hiortunn, Laattu mig siaa þijna Hefnd a þeim, þviad eg hefe þier mitt Maalefne a Hende fooliged.

13. Lof synged DRottne, Vegsamed DROTTinn, hann sem frelsad hefur Lijfed hins Faatæka, ur Hondum þeirra Illgiorna.

14. Bolvadur vere sa Dagur, a hvorium þad eg var fæddur, Vansignadur vere sa Dagur a þeim ed mijn Moder hun fædde mig.

15. Bolvadur sie sa sem flutte mijnum Fodur good Tijdende, og sagde, Eirn ungann Son hefur þu feinged, ad hann villde glediá hann. Sa hinn same Madur sie so sem þeir Staderner hvorium DROttinn umturnade, og þad angrade hann ei, og hann skal ad Morgne heyra eitt Op, og um Middeiged eirn Sorgar Graat.

16. Ad þu hefur ecke helldur aflijfad mig j Modur-Kvide? so ad mijn Moder hefde maatt vera mijn Grof, og hennar Kvidur hefde þungadur vered alla Æfena.

17. Hvar fyrer mun eg frammkomenn af Modur-Kvide? Ad eg skyllde eiga ad siaa sodann Eymdarlag, og Hiartans Angur, og ad enda so mijna Lijfdaga med Skomm.

## XXI. Capitule.

Jeremias talar (I) um Jerusalems Eydelegging; Og (II) þeirra Frelse, er villde giörast up fyrer þeim Chaldæisku.

I. Þetta er þad Orded sem skiede af Drottne til Jeremia, þa ed Kongurenn Zedechias sende Pashur, Malchia Son, til hans, og Zephania, Son Maesia Prests, og liet segia honum.

2. Adspyr þu DROTTinn fyrer oss, þviad Nabuchodonosor, Kongurenn af Babylon, strijder a mote oss. Þad DRottinn villde þo giora vid oss epter ollum sijnum Daadsemdum, so ad hann mætte burt fara fra oss.

3. Jeremias sagde til þeirra, Seged so Zedechia.

4. Þetta seger DROTTinn Gud Israels, Siaa þu! Eg vil snua þeim Vopnum a Bak aptur sem þier hafed j ydrum Hondum, medur þeim er þier beriest a mote Kongenum af Babylon, og j mote þeim Chaldeis, sem ydur

hafa umkringt hier ute fyrer Murnum, og vil safna þeim til samans midt inn j Stadeum.

5. Og Eg vil strijda á moti ydur med utriettre Hende, med sterkum Armlegg, med mikellre Reide, Grimmd, og Mißkunarleyse.

6. Og Eg vil slaa Borgarana þessa Stadarins, bæde Menn og Fienad, so ad þeir skulu deya af mikelle Drepsott.

7. Og þar eptera (seger DROTTinn) vil Eg giefa Zedechiam, Kongenn Juda, asamt hans Pienara, og þad Folked sem epter verdur j þessum Stad af Drepsottenne, Sverdenu, og Hungrenu, j Hendur Nabuchodonosor, Kongenum af Babylon, og j þeirra Ovina Hendur, og j þeirra hinna somu Hendur sem leita epter þeirra Lijfe. Ad hann skule so slaa þa med Sverds Eggium, ad þar skal eingenn Vægd edur Vorkun, nie Miskunseme a vera.

II. 8. Og seg þu þessu Folke, So seger DROTTinn. Sioa þu! Eg legg fyrer ydur Veigenn til Lijfsins, og Veigenn til Daudans.

9. Hver hann blijfur j þessum Stad, sa skal deya fyrer Sverde, Hungre, og Drepsott. Enn hver sem giefur sig ut til þeirra Chaldeos, sem ydur hafa umkringt, sa skal lifa, og sijnu Lijfe behallda, sem edru Hlutskipte.

10. Þviad Eg hefe sett mitt Auglit ut yfer þennann Stad til Ogiæfu, og til einskis gods, seger DROTTJnn, hann skal giefast j Hendur Konungsins af Babylon, so ad hann skal brenna hann upp med Ellde.

11. Og heyred Ord DRottins, þier af Husenu Kongsins Juda!

12. Þu Davids Hus! So seger DROttinn, Hallded Domenn a Morgnenum, og frelsed þann sem ræntur er af Hende Offsoknarans, uppa þad mijn Grimmd skule eige utfara sem Elldur, og brenna, so ad eingenn kunneut ad slockva, fyrer ydvars vondslegs Athæfes Saker.

13. Sioa þu! seger DROttinn, Eg sege þier, þu sem byr j Dalnum, a Biorgunum, og a Sliettlendenu, og þu seger, Hver vill oss yfergang veita, edur innkoma j vora Her-Kastala?

14. Eg vil sækia ydur heim (seger DROttinn) epter Averte ydvara Verka, Eg vil kveikia eirn Elld j hennar Skoge, hann skal foreyda öllum Hlutum, þar allt um kring.

## XXII. Capitule.

Jeremias (I) spaaer þvi Joachas Konunge, ad hann ætte ad deya i Egyptalande; En (II) Eliakim (Joachim) Afna-Greftran; Og (III) hotar Jechonias (Joachim) ad hann skyllde verda svipptur sijnum Bornum.

I. So seger DROTTinn, Gack þu ofann j Hused Konungsins Juda, og tala þar þesse Ord, Og seg.

2. Þu Kongurenn Juda, sem situr uppa Davids Stoole, Heyr þu Ord DROTTins, bæde þu og þijner Pienarar, og þitt Foolk sem um þessar Dyr innganga!

3. So seger DROttinn, Hallded Riettinn og Riettvijsena, og frelsed hinn rænta af Hende Offsoknarans, og ploaged ecke hinn Framanda, Fodurleysingiann, og Eckiuna, og giored öngvum Ofrijke, og uthelled ecke Saklausu Bloode j þessum Stad.

4. Ef ad þier giored þetta, þa skulu þeir Konungarner sem sitia a Davids Stoole inn fara um Dyrnar þessa Hussens, bæde a Vögnum og Hestum, med sijnum Pienurum og Folke.

5. Enn ef þier hlyded ecke þessu, þa hefe Eg svared vid sialfann mig (seger DROTTinn) ad þetta Hus skal nidur broted verda.

6. Þviad so seger DROTTinn af Husenu Kongsins Juda, Gilead! þu ert mitt Hofud j Libanon, Hvad gillder? Eg vil giora þig eyde, og þa Stadena fyrer utann Innbyggiara.

7. Þviad Eg hefe utvegad Foreydslu Menn yfer þig, hvorn med sinne Veriu, Þeir skulu afhöggva þijn utvalenn Cedrus-Trie, og kasta þeim j Elld.

8. Þa munu marger Heidingiar ganga framm

framm hiꝏ þessum Stad, og segia hvor til annars, Hvar fyrer mun DRottinn hafa so breytt vid þennann mikla Stad?

9. Og þar mun so svarad verda, Af þvi þeir yfergꝏfu Sꝏttmꝏlann DROTTins Guds sijns, og tilbꝏdu annarlega GUde, og þionudu þeim.

10. Grꝏted ecke yfer Framlidnum, og gremied ydur ecke þess vegna, Enn grꝏted helldur yfer þeim sem j burt fer, þviad hann mun alldrei aptur koma, þad hann siae ad sioa sitt Fødurland.

11. Þviad so seger DROTTinn, af Sallum, Syne Josia, Kongsins Juda, hann hvor ad er Kongur j Stadenn sijns Fødurs Josia, hvor ed j burt er farenn af þessum Stad, Hann mun ecke hingad aptur koma.

12. Helldur mun hann deya j þeim Stad, þangad sem hann er Hertekenn j burt fluttur, og hann mun eige meir sioa þetta Land.

II. 13. Vei sie þeim sem bygger sitt Hus med Synd, og sijn Herberge med Oriettenum, hann sem lætur sinn Nꝏunga Erfida fyrer eckert, og giefur honum ecke sitt Verdkaup.

14. Og þeinker so, Nu vel, Eg vil byggia mier eitt stort Hus, og vijdann Sal, og lætur hoggva sier Vindaugu þar a, og þilia med Cedrus-Vide, og mꝏla ut med Raudu.

15. Hvort þeinker þu, ad þu vilier þar fyrer Kongur vera, þo ad þu hallder þier til med Cedrus-Vide? Hefur ecke eirnenn þinn Fader eted og drucked, og giorde þo samt riettann Dom og Riettvijsena, og þad vegnade honum vel.

16. Hann hiꝏlpade hinum Þurftuga og Fꝏtæka til Riettarins, og þad gieck honum vel. Er þad eige so, ad slijkt kallest riettelega ad þeckia Mig, seger DROTTinn?

17. Enn þijn Augu, og þitt Hiarta, standa ecke so, helldur uppa þijna Agyrne, uppa þad, ad uthella Saklausu Bloode, til ad veita Yfergang og Underprickia.

18. Þar fyrer seger DROTTinn af Joachim, Syne Josia, Konungenum j Juda, þad eige munu þeir harma hann, Æ Broder! Æ Syster! og þad eige munu þeir grꝏta hann. Æ þu Herra! Æ þu Ætt-Gofuge!

19. Hann mun jardadur verda sem annar Asne, Dreigenn og utkastadur fyrer Portenn j Jerusalem.

20. Joa, gack þa uppa Libanon, og kalla, og lꝏt heyra til þijn j Basan, og kalla fra Abarim, þviad aller þijner Astviner eru herfeleggana deydder.

21. Eg sagde þier þad ꝏdur fyrerframm, þa ed þad gieck enn vel til fyrer þier, Enn þu sagder, Eg vil eige heyra. So hefur þu giort (a) alla þijna Lijfdaga, ad þu villder ecke hlyda minne Raust.

(a) (Alla þijna Lijf-Daga) Ebr. Alltijd fra Ungdome.

22. Vindurenn skal fæda alla þijna Hyrdara, Og þijner Astmenn fara Hertekner j burt, þar hlytur þu þo til Hꝏdungar og Skammar ad verda, fyrer allra þinna Illgiørda Saker.

23. Þu sem nu byr j Libanon, og hreidrar þig j Cedrus-Vide, Hvorsu dælegur muntu þa ꝏlits vera, nær ed yfer þig kiemur Hørmung og Harmkvæle, Lijka sem Jodsiukrar Konu.

III. 24. So Sannarlega sem Eg life (seger DRottinn) þo Jechonias, Sonur Joachims, Konungsins Juda, være eirn Signets Hringur a minne Hægre Hende, þa villda Eg þo slijta þig þar ut af.

25. Og giefa þig j þeirra Hendur sem leita epter þijnu Lijfe, og fyrer hvorium ad þu ert hræddur, sem er, j Hendur Nabuchodonosors, Konungsins af Babylon, og j Hendur þeirra Chaldeaniskꝋ.

26. Og Eg vil utdrijfa þig, og þijna Modur sem þig fædde, burt j eitt annad Land, sem ecke er ydar Fødurland, og þar skulud þid deya.

27. Og ecke koma aptur hingad j þetta Land, j hvoriu þeir villdu þo af Hiarta fegner vera.

28. Hvorsu

28. Hvorsu Aumlegur, Forsmaanarlegur, og Uthrakenn Madur þa er Jechonias? Eitt audvirdelegt Kier, Ah! Þvi er hann so utflæmdur med sijnu Sæde, og j burt snaradur j eitt okunnugt Land?

29. O þu Land! Land! Land! Heyr þu Ord DROTTins!

30. So seger DROTTinn, Skrifed þennann Mann upp fyrer eirn Fordiarfadann, fyrer þann Mann sem eige mun vel luckast um sijna Lijfdaga. Þviad hann mun eige þa Hamingiu hafa, þad nockur ut af hans Sæde skule sitia a Stoole Davids, og frammveigis Rijkis-Stiorn hafa j Juda.

# XXIII. Capitule.

Jeremias talar (I) um þann Sanna Hyrder Christum; So og (II) um þa Folsku Propheta i Juda.

I. Vei ydur Hyrdurum! þier sem fyrerfared og sundurdreifed minne Hiord, hvoria Eg fæde, seger DRottinn.

2. Þar fyrer seger DROttinn Gud Israels, ut af þeim Hyrdurunum sem Fædu giefa mijnu Folke, Þier hafed j sundur dreift, og j burt reked mijna Hiord, og hennar ecke vitiad, Sioaed, Eg vil sækia ydur heim, fyrer ydars Illskulegs Athæfis saker, seger DROTTinn.

3. Og Eg vil þeim sem epter eru orduer af minne Hiord, samansafna ut af ollum Londum, þadann sem Eg hefe j burt drifed þa, og Eg vil flytia þa aptur til sinna Hiardar-Husa, so ad þeir skulu vaxa, og marger verda.

4. Og Eg vil setia Hyrdara yfer þa, þeir ed þeim skulu Fædslu giefa, so ad þeir skulu ecke meir hrædast, nie skielfast, nie heimsoktter verda, seger DROTTinn.

5. Sioa þu, Sa Tijme kiemur, seger DROTTinn, þad * Eg vil David uppvekia einn Riettlaatann Kvist, og hann skal eirn Kongur vera, Sa ed vel mun stiorna, og giora Riettenn og Riettvijsena a Jordu.

6. A þeim sama Tijma skal Juda Hoolpenn verda, og Israel ugglaus bua. Og þetta mun hans Nafn vera, ad Menn munu kalla hann DROTTinn, sem er Vor Riettlæting.

7. Þar fyrer sioa þu, Sa Tijme mun koma, seger DROTTinn, Ad eige mun meir sagt verda, So Sannarlega sem þad DRottinn lifer, Sa ed utleidde Israels Born af Egyptalande,

8. Helldur, So Sannarlega sem Drottinn lifer, sem utflutte og sokte þad Sæded Husfens Israel, ut af Nordurlandenu, og ur ollum þeim Londum hvert Eg hefe j burt reked þa, so ad þeir skulu bua j þeirra Lande.

## A moote Prophetunum.

II. 9. Mitt Hiarta þad vill sundur springa j mijnu Lijfe, oll mijn Bein þau skioalfa, mier er so sem Fordrucknum Manne, og sem þeim ad hrasar af Vijne, fyrer DROTTne, og fyrer hans Heilogu Orde.

10. Ad Landed er so fullt af Hoordoms Monnum, ad Landed stendur so aumlegana, ad þvi er so fyrermællt, og ad Eingiarnar a Eydemorkenne eru j burt þornadar, og þeirra Lifnadur er vondur, og þeirra Stiornan duger ecke.

11. Þviad bæde Prophetarner og Prestarner eru Illmenne, og Eg finn eirnenn þeirra Illsku j mijnu Huse, seger DROTTinn.

12. Þar fyrer er þeirra Vegur so sem eirn Hoalku-Vegur j Myrkrenu, a hvorium ed þeir skridna og falla. Þviad Eg vil laata Ogiæfu yfer þa koma, a Aare þeirra Vitiunar, seger DROTTinn.

13. Ad sonnu, þa sa eg Heimsku j hioa Prophetunum j Samaria, ad þeir spaadu fyrer Baal, og Afvega leiddu mitt Folk Israel.

14. Enn hioa Prophetunum til Jerusalem sie Eg Svijvirdingar, Hvernenn ad þeir drija Hoordoma, og fara med Lygar, og stirkia

* Luc. 1, 69. 70.

styrkia hina Illkufullu, so þad eingenn skule snua sier j burt fra sinne Illgyrne. Aller eru þeir fyrer Mier lijka sem Sodoma, og þeirra Borgar-Menn so sem Gomorra.

15. Þar fyrer seger DROTTINN Zebaoth so, af þeim Prophetunum, Sioa þu, Eg vil fæda þa med Malurt, og dryckia þa med Galle, þviad af þeim Prophetunum til Jerusalem kemur (a) Hræsne j allt Landed.

(a) (Hræsne) Falsklegt Andlegt Lijferne og Vantru.

16. So seger DROTTINN Zebaoth, Hlyded ecke Ordum þeirra Prophetanna sem spaa fyrer ydur, þeir svikia ydur, þviad þeir Predika Sioner sijns Hiarta, og ecke af Munne DROTTINS.

17. Þeir segia til þeirra sem mig lasta, DROTTINN hefur sagt þad, ad ydur skule vel ganga. Og þeir segia til allra þeirra sem ganga epter Þotta sijns Hiarta, Þar skal eingenn Ogiæfa koma yfer ydur.

18. Þvi hvor hefur staded j Raade DROTTINS, sa ed hefur sied edur heyrt hans Ord? Hvor hefur formerkt og heyrt hans Ord.

19. Sioa þu, Stormvindur DROttins mun koma med Grimmd, og eitt hrædelegt O-Vedur mun falla yfer Hofud þinna O-gudlegu.

20. Og Reide DROTTINS mun ei aflaata þangad til ad hann hefur þad giort, og þvi til vegar komed sem honum byr j Skape, hier epter-a munud þier vel formerkia þad.

21. Eg sende ecke þa Prophetana, þo hlupu þeir, Eg talade ecke til þeirra, þo spaadu þeir.

22. Þvi þar sem þeir hefdu vered vid mitt Raad, og hefdu predikad mitt Ord mijnu Folke, þa hefdu þeir (b) snued þvi fra sijnu vondu Athæfe, og fra sijnum vondslegum Lifnade.

(b) (Snued) Guds Ord snyr Monnum a riettann Veg, aller adrer Lærdomar færa a villann Veg.

23. Er Eg ecke Sa Gud sem (c) nalægur er, seger DROTTINN, og ecke sa Gud sem Fiarlægur er?

(c) (Nalægur) Þeir eru so ugglauser, og ofvijdner, eins og Eg sæe ecke þeirra Fals Lærdom.

24. Þeinker þu, ad nockur kunne so leynelegana ad fela sig, þad Eg sjae eige sied hann? seger DROTTINN, er Eg eige Sa sem upp fylle Himen og Jord? seger DROTTINN.

25. Eg heyre þad vel, ad Prophetarner þeir Predika og spaa falsklega j mijnu Nafne, og segia, Mig dreymde, Mig dreymde.

26. Hvonær vilia þo þeir Prophetarner linna sem spaa falsklegana, og ad spaa þeirra Hiartans Svikræde?

27. Og vilia ad mitt Folk forgleyme mijnu Nafne, yfer þeirra Draumum, sem hvor þeirra Predikar fyrer odrum, Lijka sem ad þeirra Forfedur forgleymdu mijnu Nafne fyrer Baals saker.

28. Sa Prophete sem hefur Drauma, hann (d) Predike Drauma, Enn hvor hann hefur mitt Ord, sa Predike mitt Ord riettelega. Hvad skal Halmstraaed saman vid Hveited? seger DROTTINN.

(d) (Predike Drauma) Laate hann mitt Nafn vera j Fride, og sege ecke þad sie mitt Ord, sem hann dreymer, helldur þad sie hans eiged Ord, og maa þad hafa hans Nafn.

29. Er mitt Ord ecke lijka sem eirn Elldur, seger DROTTINN, og lijka sem eirn Hamar, sa ed Biorgenn j sundur molar?

30. Þar fyrer sioa þu, Eg vil til vid þa Prophetana, seger DROTTINN, þeir ed (e) stela mijnu Orde, hvor fra odrum.

(e) (Stela) Utleggia þad falsklega, og þar med stela þeir þvi Rietta Ordenu fra Folkenu.

31. Sioa þu, Eg vil til vid þa Prophetana, seger DROTTINN, sem frammflytia þeirra eigenn Ord, og segia, Hann hefur sagt þad.

32. Sioa þu, Eg vil til vid þa, sem fyrer spaa falsklega Drauma, seger DROttinn,

og Predika þa enu somu, og villa mitt Folk med sijnum Lygum og Lausmælge, hvoria ad Eg hefe þo ei utsendt, og ei helldur boded þeim þad, og þeir eru ecke eirnenn þessu Folke nytsamleger, seger DROTTinn.

33. Nær ed þetta Folk, eda eirn Prophete, ellegar eirn Prest-Madur spyr þig ad, og seger, Hvor er sa DROTTins Byrdar-Punge? Þa skalltu segia til þeirra, hvor sa Byrdar-þungenn sie, Eg vil burtkasta ydur, seger DROTTinn.

34. Og ef einhvor Prophete eda Prestur, ellegar Folked seger, Þad er sa Byrdar-Pungenn DROTTins, þann vil Eg heimsækia, og hans Hus þar til med.

35. Enn so mun hvor vid annann tala, og sijn a millum segia, Hvoriu svarade DROttinn? og hvad seger DROttinn?

36. Og kalled þad ecke meir eirn (f) Byrdar-þunga DROttins, þviad hvors Manns sioalfs eiged Ord skal vera honum eirn Byrdar-Punge, þar fyrer, ad þier umsnued so Ordunum þess (g) Lifanda Guds, þess DROTTins Zebaoth Vors Gud.

(f) (Byrdar-Punga) So hafa þeir uppa Spieskap Prophetans Ord kallad Byrdar-Punga, og hallded þar med Jeremiam so sem fyrer eirn Dæara.

(g) (Lifanda Guds) J Ebreska Textanum stendur Peirra Lifendu Guda, sem væru þeir fleyre, og þo legst þar til, Eirn Herra Zebaoth, til ad merkia þær Þriar Persónur j Einum Guddome.

37. Þar fyrer skulud þier segia so til Prophetanna, Hvoriu svarade DROTTinn þier, og hvad seger DROTTinn?

38. Enn med þvi þier seged, Byrdar-Punge DROttins, þar fyrer þa seger DRottinn so, Nu, þier kalled þetta Ord eirn Byrdar-Punga DROttins, og Eg hefe sendt til ydar, og lcated segia til ydar, ad þier skylldud ecke kalla þad eirn Byrdar-Punga DROttins.

39. Sioaed, so vil Eg ydur j burt taka, easamt med Stadnum sem Eg hefe giefed ydur og ydar Forfedrum, og j burt fleygia ydur fra mijnu Auglite.

40. Og Eg vil lcata yfer ydur koma æfenlega Skomm, og eylijfa Forsmcan, sem aldreige skal forgleymd verda.

# XXIV. Capitule.

Jeremias (I) ser Tvær Fijkiu-Karfer, i hverium ad voru (II) bæde Godar Fijkiur, er þyddu Blessan þeirra af Gydingum sem tedu sig Hlydna; (III) So og lijka Illar Fijkiur, til Þydingar uppa Bolvun yfer þeim Ohlijdnu Gydingum.

I. Sioa þu, DROTTinn synde mier Tvær Fijkiu-Karfer, settar ute fyrer Musterenu DROTTins, (epter þad þa ed Nabuchodonosor, Konungurenn af Babylon, hafde j burtu flutt Jechoniam, Son Joachims, Konungsins Juda, medur Hofdingiunum j Juda, Trie-Smidum og Hagleiks-Monnum af Jerusalem, og fært þa til Babyloniam.)

2. J þeirre eirne Korfenne voru miog goodar Fijkiur, so sem ad eru þær hinar first fullvaxnar Fijkiur. J hinne annare Korfenne voru miog Illar Fijkiur, ad þær voru ecke etande, so illar voru þær.

3. Og DROTTinn sagde til mijn, Jeremia! Hvad sier þu? Eg sagde, Fijkiur, Þær goodu Fijkiurnar eru miog goodar, og hinar Vondu, eru miog Vondar, so ad þær eru ecke etande, so illar eru þær.

II. 4. Þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde.

5. So seger DROTTinn Gud Jsraels, Lijka sem ad þessar Fijkiurnar eru godar, so vil Eg Naadarsamlega taka þa ad mier sem Fangader eru af Juda, hvoria Eg hefe burt lcated fara af þessum Stad, j Land þeirra Chaldeanstu.

6. Og Eg vil lyta Naadarsamlegana til þeirra, og innflytia þa aptur j þetta Land, og Eg vil uppbyggia þa, enn ecke briota þa af. Eg vil groodursetia þa, enn ecke uppræta.

7. Og Eg vil giefa þeim eitt Hiarta, ad þeir skulu þeckia mig, þad Eg sie DRottinn, og

og þeir skulu vera Mitt Folk, þa vil Eg vera þeirra Gud, þviad þeir skulu snua sier af ollu Hiarta til Mijn.

III. 8. Enn lijka sem ad þær vondu Fijkiurnar eru so vondar, ad Menn kunna ecke ad eta þær, (seger DROTTinn) So vil Eg j burt giefa Zedechiam, Kongenn Juda, aasamt hans Hofdingia, og þad hvad epter er orded til Jerusalem, og epter j þessu Lande, og þa sem bua j Egyptalande. Eg vil tilsenda þeim Ogiæfu.

9. Og laata þa ecke vera roolega j neinu Kouga-Rijke a Jordu, so ad þeir skulu ad Skomm verda, og ad Ordskvid, og Frasogu, og ad Bolvan, j ollum Stodum, þangad sem Eg mun j burt reka þa.

10. Og Eg vil a medal þeirra senda Sverd, Hungur, og Drepsott, þangad til ad þeir foreydder verda, ut af þvi Lande, sem Eg hefe giefed þeim og þeirra Forfedrum.

## XXV. Capitule.

Jeremias bodar (I) Juda Kongs-Rijke, og (II) Ødrum Naalægum Kongs-Rijkium, ad Drottenn villde Straffa þau og Eydeleggia.

I. Þetta er þad Ord sem skiede til Jeremia, yfer ollu Folke Juda, a Fiorda Aare Joachims, Sonar Josia, Konungsins Juda (hvert ed var þad Firsta aared Nabuchodonosor, Konungs af Babylon.)

2. Hvad er Prophetinn Jeremias talade eirnenn til alls Folksins Juda, og til allra Borgarmannanna j Jerusalem, og sagde.

3. Ord DROttins skiede til mijn, *a þvi hinu Þrettanda aarenu Josia, Sonar Amon, Konungsins Juda, allt til þessa Dags, Og Eg hefe (a, kostgiæfelega predikad fyrer ydur, j Þriu aar og Tuttugu, Enn þier hafed alldrei viliad heyra þad.

* Fyrer Christi Fæding 607.

(a) (Kostgiæfelega) Ebr. Snemma.

4. So hefur eirnenn DROTTinn sendt til ydar alla sijna Þienara, þa Prophetana, kostgiæfelega, enn þier hafed alldrei viliad heyra þeim, nie ad-hneygia ydar Eyru til ad hlyda þeim.

5. Þa ed hann sagde, Snued ydur Hver sem eirn j burt fra sijnum vondum Veige, og j burt fra ydru vondu Athæfe, þa skulud þier aavallt og æfennlega vera j þvi Landenu, sem DROTTinn hefur giefed ydur og ydar Forfedrum.

6. Epterfilged ecke annarlegum Gudum, so ad þier þioned þeim, edur tilbidied þa, uppa þad þier reyted Mig ei til Reide med ydar Handaverkum, og þad Eg tilsende ydur Ogiæfu.

7. Enn þier villdud ei hlyda Mier, seger DROTTinn, so ad þier giordud mig fullkomlegana Reidann, med ydar Handa-Verkum, ydur til eigennlegrar Ogiæfu.

8. Þar fyrer seger DROTTinn Zebaoth. Firstþier vilied ecke þa heyra mijn Ord.

9. Sioa þu! Þa vil Eg utsenda og koma laata allt Folk a mote Nordrenu, (seger DROTTinn) og eirnenn minn Þienara, Nabuchodonosor, Konungenn af Babylon, og Eg vil færa þa yfer þetta Land, og yfer þa sem bua þar jnne, og yfer allt þad Folk, sem hier liggur um kring, og Eg vil Bannfæra þa, og foreyda þeim, og giora þa ad Hæadung, og eylijfre Foreydslu.

10. Og Eg vil hiedann j burt taka allann gledelegann Song, Raustena Brudgumans og Brudarennar, Kvarnar-Nidenn, og Lios Lycktarennar,

11. So ad allt þetta Land skal liggia j Eyde, og nidurbroted. Og þetta Folk skal þiona Konungenum af Babylon j Siotijger Aar.

12. Enn þegar þau Siotijge aarenn eru lidenn, þa vil Eg sækia heim Konungenn j Babylon, og allt þad Folk (seger DROTTinn) fyrer þeirra Misgiorda Saker, þar med eirnenn Land þeirra Chaldeanska, og þad vil Eg giora til eirnrar eylijfrar Foreydslu.

13. So vil Eg innflytia oll mijn Ord yfer þetta Land, þau sem Eg hefe talad a mote þvi, sem er allt þetta, hvad skrifad stendur j þessare Bok, þad sem Jeremias hefur spaad um allt Folk.

14. Og þeir skulu eirnenn þiona, þo ad þeir sieu eitt mikelshaattar Folk, og mikler Konungar. So vil Eg endurgiallda þeim epter þeirra Verd-Skulldan, og epter þeirra Handa-Verkum.

II. 15. Þviad so seger DROTTinn GUD Jsraels til mijn, Tak þennann Bikar af minne Hende, fullann af Reidennar Vijne, og skeink ollu Folke þar af, til hvørs ad Eg sende þig.

16. So ad þeir Drecke, Dette, og verde Galder fyrer þvi Sverde sem Eg vil senda a medal þeirra.

17. Og eg tok Bikarenn af Hende DROttins, og skeinkte ollu Folke, til hvørs ad DRottinn sende mig.

18. Sem er, Jerusalem, Borgunum Juda, þeirra Kongum og Hofdingium, so ad þeir skulu j Eyde nidur brotner liggia, og vera so ein Haadung og Bølvan, so sem ad þad er þennann Dag.

19. Og eirnenn Pharaone, Kongenum j Egyptalande, med hans Þienurum, hans Hofdingium, og ollu hans Folke.

20. Ollum Londum a mote Vestrenu. Ollum Konungum j Landenu Uz, ollum Konungum j Palestina Lande, med Ascalon, Gasa, Acharon, og þeir sem epter eru j Asdod.

21. Þeim af Edom, þeim af Moab, þeim Børnum Ammons.

22. Ollum Konungunum til Tyro, ollum Kongunum j Zidon, þeim Kongunum j Eyunum, hinumeigenn Hafsins.

23. Þeim af Dedan, þeim af Thema, þeim af Buz, og ollum Hofdingium j þeim Platsum.

24. Ollum Konungum j Arabia, Ollum Konungum mote Vestrenu, sem bua j Eydemorkenne.

25. Ollum Konungum j Zimri, ollum Kongum j Elam, ollum Konungum j Meden.

26. Ollum Konungum mot Nordrenu bæde nærre og fiærre, einum sem ødrum, og ollum Konungum a Jordu, þeim sem a Jardrijke eru, og Konungurenn (b) Sesach skal drecka epter þessa.

(b) (Sesach) Skal vera Kongur j Babylon.

27. Og seg þu til þeirra, So seger DROttinn Zebaoth, GUD Jsraels. Drecked, so ad þier verded druckner, spyed, og falled nidur, og meiged ei uppstanda, fyrer Sverdenu þvi sem Eg vil senda a medal ydar.

28. Og ef þeir vilia ei taka vid Bikarnum af þinne Hende, og drecka, þa seg þu til þeirra, So seger DROttinn Zebaoth.

29. Nu skulud þier drecka. Þviad sioa þu! Eg vil upphefia ad ploaga j þessum Stad, sem ad nefndur er epter mijnu Nafne, Og skylldud þier ostraffader vera? Þier skulud ecke ostraffader vera, Þviad Eg kalla Sverded yfer alla þa sem bua a Jordu, seger DROTTinn Zebaoth.

30. Og þu skallt spaa þeim oll þesse Ord, og segdu til þeirra, DROttinn mun grenia af Hædunum, og laata heyra sijna Reydar-Þrumu, af sijnum Heilaga Bustad, Hann mun grenia yfer sijnum lystelega Stad, Hann mun syngia eitt (c) Kvæde, so sem þeir ed Vijn-Þrugurna troda, yfer ollum Jnnbyggiurum Landsins.

(c) (Kvæde) Ovinerner munu gledia sig þar af, ad þeir saa soddann Sigur.

31. Hvør Hlioomur heyrast mun allt til Verallðarennar Enda. DROTTinn hann hefur Kiærumaal vid Heidingiana, og vill hallda Dom vid allt Holld, hann mun yfergiefa hina Ogudlegu under Sverded, seger DROTTinn.

32. So seger DROTTinn Zebaoth, Sioa þu! Þar mun koma Ploaga fra einu Folke til annars, og eitt mikid Storm-Vidre mun upp vaked verda, j fra Sijdunne Landsins.

33. Þa munu þeir sem slegner eru af DROtne, a þeim sama Tijma, liggia j fra einum Jardar-Endanum, allt til eins annars Endans,

Endans, eige skulu þeir harmader verda, ei uppteknar, nie jardader, helldur skulu þeir a Vollunum liggia, og ad Ohreinendum verda.

34. Med nu, þier Hyrdarar! og hrooped, bellted ydur j Osku, þier Vollduger yfer Hiordenne! Þviad sa Tijme er hier, þad þier skulud slaatrast og sundurdreifder verda, og j sundur brotna, sem eitt kostulegt Kier.

35. Og (d) Hyrdararner skulu ecke umflued gieta, og hiner Vollddugu yfer Hiordenne skulu ecke kunna undann ad komast.

(d) (Hyrdararner) Hofdingiarner og Herrarner, þeirra Eing er þeirra Herradomur, Hvort sa Tyranneinn af Babylon mun eydeleggia.

36. Þa munu Hyrdararner hoatt hroopa, og hiner Vollldugu yfer Hiordenne munu æpa, þad DROttinnn hefur so j Eyde lagt þeirra Haglende.

37. Og þeirra Eingiar, sem so vel stoodu, eru fordiarfadar, fyrer grimmlegre Reide DROTTins.

38. Hann hefur yfergiefed sijna Tiallddbud sem eitt ungt Leon, og þeirra Land er so j eyde lagt, af Vijkingsins þunglegre Heipt, og af hans Grimmdarfullre Reide.

# XXVI. Capitule.

Jeremiæ er hotad Lijflaate, af þvi hann talade Sannende.

J upphafe Kongs-Rijkis Joachims, Sonar Josia, Konungsins Juda, skiede þetta Ord af DROttne, og sagde.

2. So seger DROttinn, Gack þu j Forgardenn a Huse DROTTins, og predika fyrer ollum Stodunum Juda, sem þar jnn ganga ad tilbidia j Huse DROttins, Oll þau Ord sem Eg hefe boded þier ad segia þeim, og tak ecke neitt þar fra.

3. Ef so verda mætte, ad þeir villdu þad heyra, og snua sier, hvor eirn j burt fra sijnu vondu Athæfe, so ad Mig mætte og eirnenn angra þær Meinsemder sem Eg þeinke þeim ad giora, fyrer þeirra vondsl.gs Athæfes Saker.

4. Og seg til þeirra, So seger DROttinn, Ef þier villed ecke hlyda Mier, so ad þier ganged j mijnu Logmaale, þvi sem Eg hefe lagt ydur fyrer.

5. Ad þier heyred Ordenn minna Þienara Prophetanna, þa sem Eg hefe (a) alla Tijma til ydar sendt, og þier villdud þo ecke heyra.

(a) (Snemma.)

6. Þa vil Eg giora vid þetta Hus, so sem vid Silo, og giora þennann Stad ollum Heidingium a Jordunne til Bolvunar.

7. Þa ed nu Prestarner, Prophetarner, og allt Folked, heyrdu Jeremiam, ad hann talade soddann Ord j Huse DROTTins,

8. Og er Jeremias hafde ut-talad allt hvad DROttinn hafde boded honum ad segia ollu Folke, þa gripu Prestarner hann, Prophetarner, og allt Folked, og sogdu, Þu hlytur ad deya.

9. Hvar fyrer dyrfest þu ad spaa j Nafne DROTTins? Og segia, Þad skal ganga þessu Huse so sem Silo, og þesse Borg skal foreydd verda, so ad eingenn skal framar þar inne bua, og allt Folked safnadest til samans j Huse DRottins, j giegn Jeremia.

10. Þa ed Hofdingiarner Juda heyrdu þetta, geingu þeir ut af Konungsins Huse, upp j Hus DROTTins, og settu sig nidur fyrer þeim nyu Dyrunum DROttins.

11. Og Prestarner, og Prophetarner, sogdu fyrer Hofdingiunum, og ollu Folke, Þesse er Dauda verdur, þviad hann hefur spaad moote þessum Stad, sem þier hafed heyrt med ydar Eyrum.

12. Enn Jeremias sagde til Allra Hofdingianna, og til alls Folksins, DRottinn hefur sendt mig, ad eg skyllde spaa a moote þessu Huse, og moote þessum Stad, allt þad sem þier heyrdud.

13. Þar fyrer þa forbetred nu ydart Athæfe, og Breytne, og hlyded Raustenne DROttins Guds ydars, so mun og DRottinn

tinn jdrast þeirrar Meinsemdar, sem hann hefur talad a mote ydur.

14. Sioa þu, Eg er j ydar Hondum, þier meiged giora til vid mig, hvad ydur þyker riett og gott vera.

15. Þo skulud þier vita, Ef þier lijfloated mig, þa munud þier uthella saklausu Blode yfer ydur sioalfa, yfer þennann Stad, og hans Innbyggiara, þviad sannarlega hefur DROTTinn sendt mig til ydar, ad eg skyllda tala þetta allt fyrer ydar Eyrum.

16. Þa sogdu Hofdingiarner og allt Folked til Prestanna, og Prophetanna, þesse er ecke Dauda verdur, þviad hann hefur talad til vor j Nafne DROTTins Guds Vors.

17. Og nockrer af Olldungunum Landsins stodu upp, og sogdu til alls Mannfioldans.

18. J Tijd Ezechia, Konungsins Juda, var hier eirn Prophete, Micheas af Maresa, og hann sagde til alls Folksins Juda, So seger DROTTinn Zebaoth, Zion skal plægiast sem annar Akur, og Jerusalem skal verda ad Griot-Hrugu, og þad Fialled sem Hused DROTTins er a, skal verda ad Ville-Skoge.

19. Enn þo liet Ezechias Kongur, og allt Juda, ecke þar fyrer ad helldur lijfloata hann. Joa, þeir ottudust miklu framar DROttinn, og tilbodu fyrer DROttne. Þa Jdradest eirnenn DROTTinn þess hins Vonda, sem hann hafde talad a moote þeim, þar fyrer giorum vier miog jlla a moote vorum Soalum.

20. Þar var og eirn sem spoade j Nafne DROTTins, Uria, Semaja Son, af KiriathJearim, hann spoade j giegn þessum Stad, og giegn þessu Lande, Lijka sem Jeremias.

21. Enn þa ed Kongurenn Joachim, og aller hans Magtar-Menn, og Hofdingiar heyrdu hans Ord, þa villde Konungurenn loata drepa hann. Og Uria spurde þad, Hræddest, og flyde undann, og for burt j Egyptaland.

22. Enn Kongurenn Joachim sende Menn epter honum til Egyptalands, Elnathan, Achbors Son, og adra med honum.

23. Þeir fluttu hann af Egyptalande, og færdu hann Kongenum Joachim, Enn hann liet aflijfa hann med Sverde, og liet sijdann jarda hans Lijkama hioa Alþydu-Folke.

24. So var Hond Ahikam, Saphans Sonar, med Jeremia, so ad hann kom ei j Folksins Hendur, ad þad j hel slæe hann.

## XXVII. Capitule.

Jeremiæ Ok þyder (I) bæde Heidingianna, og so (II) Gydinganna Ok og þrælkan under Konungenum af Babylon.

I. J Upphafe Kongsrijkis Joachim, Sonar Josia, Konungsins Juda, skiede þetta Ord af DROTTne til Jeremia, og sagde.

2. So seger DROTTenn til mijn, Gior þier eitt Ok, og heing þad um þinn Hoals.

3. Og send þad til Kongsins j Edom, til Kongsins j Moab, til Kongsins þeirra Amons Barna, til Kongsins j Tyro, og til Kongsins j Zidon, med þeim Sendebodunum sem komner eru til Jerusalem, til Zedechia Konungsins Juda.

4. Og biod þeim, ad þeir sege til sinna Yferherra, So seger DROttinn Zebaoth, Gud Jsraels, So skulud þier segia ydar Herrum.

5. Eg hefe giort Jardrijked, og so Mannenn, og so Fienadenn, sem a Jordunne er, fyrer Minn hinn Mikla Krapt, og utriettann Armlegg, og Eg gief þad hvorium Eg vil.

6. Enn nu hefe Eg giefed oll þesse Lond j Hond mijns Þienara Nabuchodonosors, Kongsins af Babylon, Eg hefe og giefed honum þau Villudyrenn sem eru a Morkenne, so ad þau skulu þiona honum.

7. Og allt Folk skal þiona honum, og hans Syne, og hans Sonar-Syne, þangad til ad og so kiemur Tymenn hans Lands, þviad

margar

margar Þioder og Megtuger Kongar skulu hønum þiona.

8. Enn hvor su Þiod og Kongsrijke, sem ecke vill þiona Nabuchodonosor, Kongenum af Babylon, og hvor ed ecke vill giefa sinn Hals under hans Ok, þad Folk vil Eg heimsækia med Sverde, Hungre og Drepsott, seger DROTTinn, þangad til ad Eg fyrerfer þeim fyrer hans Hond.

9. Þar fyrer heyred ecke ydar Prophetum, Spaasagnar-Monnum, Drauma-Utleggiurum, Dag-Veliurum og Tofra-Mønnum, sem segia til ydar, ad þier skuluð ei þiona Kongenum af Babylon.

10. Þviad þeir spaa ydur Lygar, so ad þeir flytie ydur langt j burt ur ydru Lande, so þad Eg utreke ydur, og þier glatest.

11. Þviad hvor su Þiod sem giefur sinn Hals under Ok Kongsins af Babylon, og þionar hønum, þa Þiod vil Eg laata j sijnu Lande vera, so ad hun bygge og bue þar jnne, seger DROTTinn.

II. 12. Og eg talade allt þetta til Zedechia, Kongsins Juda, og sagde, Giefed ydar Halsa under Oked Kongsins af Babylon, og þioned hønum og hans Folke, þa skuluð þier Lijfenu hallda.

13. Hvar fyrer vilied þier deya, þu og þitt Folk, fyrer Sverde, Hungre og Drepsott, so sem þad DROTTinn hefur talad yfer þvi Folke, sem ecke vill þiona Kongenum af Babylon.

14. Þar fyrer skuluð þier ecke hlyda þeirra Prophetanna Ordum sem segia til ydar, þier munud ecke þiona Kongenum af Babylon, þviad þeir spaa ydur falskt.

15. Og Eg hefe ecke sendt þa, seger DRottenn, helldur spaa þeir Falskt j mijnu Nafne, uppa þad Eg utreke ydur, og þier tortijnest med þeim Prophetunum sem spaa ydur.

16. Og til þeirra Prestanna, og til alls Folksins talade Eg, og sagde, So seger DROttinn, Hlyded ecke Ordum ydvara Spaamanna, sem spaa fyrer ydur, og segia, Sioaed, Þau Kierenn ur Huse DROttins munu snarlega koma hingad aptur fra Babylon, þviad þeir spaa falskt fyrer ydur.

17. Hlyded þeim ecke, helldur þioned Kongenum af Babylon, so munud þier Lijfe hallda. Hvar fyrer skal þo verda j Eyde þesse Stadur?

18. Sieu þeir Prophetar, og hafe þeir Ord DROttins, þa laated þa (a) bidia þess af DROttne Zebaoth, ad þau Kierenn sem epter eru ordenu j Huse DROttins, og j Husenu Konungsins Juda, og j Jerusalem, skulu ecke eirnenn j burt flutt verda til Babylon.

(a) (Bidia) Merk þad, Ad Hvør sem hefur Guds Ord, hann kann og so ad bidia, Hvør þad ei hefur, hann kann ecke ad bidia, helldur so sem hans Predikun er røng, so er hans Bæn einskis verd.

19. Þvi so seger DROttinn Zebaoth, Af þeim Stoolpunum, og af Hafenu, af Stoolunum, og af Kierunum sem enn eru epter ordenn j þessum Stad.

20. Þau ed Nabochodonosor, Kongurenn af Babylon, hafde ecke j burt, þa ed hann j burt flutte Jechoniam, Son Joakims, Kongenn Juda, fra Jerusalem til Babylon, og alla Hofdingia Juda og Jerusalem.

21. Þviad so seger DROttinn Zebaoth, Gud Israels, af þeim Kierunum sem enn eru epter ordenn, j Huse DROttins, og j Huse Konungsins af Juda, og Jerusalem.

22. Þaug skulu j burt flutt verda til Babylon, og vera þar, allt til þess Dags, ad Eg vitia þeirra, seger DROttinn, og til þess, ad Eg læt flytia þau upp hingad aptur til þessa Stadar.

## XXVIII. Capitule.

Ananias Assurs Sonur (I) brytur Jeremiæ Tre-Ok i sundur; En (II) Jeremias er skipad af DROttne ad giøra Eitt Jarn-Ok.

I. Og

I. Og a þvi sama Aare, j Upphafe Kongs=Rijkes Zedechia, Konungsins Juda, a þeim Fimmta Maanudenum hins Fiorda aarsins, talade Ananias, Azurs Son, Prophetenn af Gibeon, til mijn, j Huse DRottins, j Naaveru Prestanna, og alls Folksins, og sagde.

2. So seger DROttinn Zebaoth, Gud Jsraels, Eg hefe j sundur broted þad Oked Kongsins af Babylon.

3. Og aadur enn Tvo aar eru umlidenn, þa vil Eg laata aptur flytia til þessa Stadar, Kierenn ur Huse DROttins, sem Nabuchodonosor, Kongurenn af Babylon, tok j burt af þessum Stad, og flutte til Babylon.

4. Þar med eirnenn Jechoniam, Son Joakims, Konungiun Juda, med ollum þeim odrum, sem Herleidder voru af Juda, sem burt flutter eru til Babylon, þa vil Eg og aptur flytia til þessa Stadar, seger DROttinn, þviad Eg vil j sundur briota þad Oked Konungsins af Babylon.

5. Þa sagde Jeremias Prophete til Anania Propheta, j Vidurvist Prestanna, og alls Folksins, sem ad stodu j Huse DROttins,

6. Og sagde, Amen! DROttinn hann giore so, DROttinn hann stadfeste þijn Ord sem þu hefur spaad, ad hann vilie aptur flytia fra Babylon þau Kierenn ur Huse DROttins til þessa Stadar, med þeim ollum sem Herleidder eru.

7. Enn þo heyr þu eirnenn þetta Ord, sem eg tala fyrer þijnum Eyrum, og fyrer Eyrum alls Folksins.

8. Þeir Prophetarner sem vered hafa fyrer mig og þig, fyrer langre Æfe, þeir hafa spaad j moote Morgum Londum, og Miklum Kongarijkium, af Bardogum, af Ogiæfu, og af Drepsottum.

9. Enn nær ed einhvor Prophete spaaer fyrer ut af (a) Fride, Hann maa þeckia af þvi, hvort DROttinn hefur sendt hann j Sannleik, þa hans Ord uppfyllast.

(a) (Fride) Þad eru vissulega Fals=Spaamenn sem lijkamlega hugga Folked, þar Folked er þo vondt.

10. Þa took Prophetenn Ananias Oked af Hoalsenum Prophetans Jeremia, og j sundur braut þad.

11. Og Ananias sagde j Vidurvist alls Folksins, So seger DROTTinn, Lijka so þa vil Eg j sundurbriota Oked Nabuchodonosors, Konungsins af Babylon, aadur enn þad Tvo Aar eru lidenn, af Hoalsenum alls Folksins. Og Jeremias Prophete gieck j burt sijna Leid.

II. 12. Enn Ord DROttins skiede til Jeremia, epter þad ad Ananias Prophete hafde j sundur broted Oked af Hoalse Jeremia Propheta, og sagde;

13. Gack þu burt, og seg til Ananiam, So seger DROttinn, Þu hefur j sundur broted þad Trie=Oked, so gior nu eitt Jaarn=Ok j Stadenn þess.

14. Þvi so seger DROttinn Zebaoth, Gud Jsraels, Eg hefe heingt eitt Jaarn=Ok a Hoalsana alls þessa Folks, hvar med þeir skulu þiona Nabochodonosor, Kongenum af Babylon, og honum skulud þier þiona, þviad Eg hefe og eirnenn giefed honum þau Ville=Dyrenn.

15. Og Jeremias Prophete sagde til Ananiam Propheta, Heyr þu Anania! DROttinn hefur ei utsendt þig, og þu hefur giort þad, ad þetta Folk þad treyster uppa Lygar.

16. Þar fyrer seger DRottinn so, Siaa þu, Eg vil taka þig j burt af Jordu, a þessu aare skalltu deya, þviad þu j burt snerer þeim fra DRottne medur þinne Ordrædu. So deyde sa Prophetenn Ananias, a þvi sama Aarenu, a þeim hinum Siounda Maanude.

## XXIX. Capitule.

(I) Bref Jeremiæ, til þeirra Herteknu Gydinga j Babylon, er (II) Illa virdt af Semaja.

I. Þesse eru þau Ordenn j Briefenu, sem Jeremias Prophete sende fra Jerusalem

lem, til þeirra epterblifnu Olldunganna, ſem j burt voru flutter, og til Preſtanna og Prophetanna, og til alls Folkſins, ſem Nabuchodonoſor hafde j burt flutt til Babylon.

2. (Epter þad ad Kongurenn Jechonias, og Drottningenn, med Herberges-Sveinunum, og Hofdingiunum Juda, og þeim af Jeruſalem, med þeim Trie-Smidum, og Hagleiks-Monnum af Jeruſalem, voru nu j burtu.)

3. Medur Eleaſa, Syne Saphans, og Gemaria, Syne Hilkia, hvoria Zedechias, Kongurenn Juda, ſende j Babylon, til Nabochodonoſors, Kongſins af Babylon, og ſagde,

4. So ſeger DROttinn Zebaoth GUD Iſraels, til allra þeirra hinna Herteknu, ſem Eg hefe j burt flytia lꜳted fra Jeruſalem til Babylon.

5. Bygged upp Huſenn j hvorium þier kunned ad bua, Planted Alldingardana, af þeim þier kunned Avaxtarens ad neyta.

6. Taked ydur Eigennkonur, og gieted Syne og Dætur, Taked Sonum ydar Eigennkonur, og giefed Menn Dætrum ydar, ſo ad þau giete Syne og Dætur, Fiolged ydur þar, ſo ad þier ſieud ecke allfꜳer.

7. Leited hins Beſta þeſs Stadarens, til hvors Eg læt j burt flytia ydur, og bidied fyrer honum, til DROTTins, þvi nær ed þad vegnar honum vel, ſo vegnar þad og ydur vel.

8. Þvi ſo ſeger DROttinn Zebaoth, GUD Iſraels, Lꜳted ei þa Prophetana, og Spꜳſagnar-Mennena, ſem þar hiꜳ ydur eru, meiga ſvijkia ydur, og hlyded ecke ydar Draumum, ſem ydur dreymer.

9. Þviad þeir ſpꜳ ydur falſkt j mijnu Nafne, Eg hefe ei udſendt þa, ſeger DRottinn.

10. Þviad ſo ſeger DROTTinn, Nær ed Siotijger ꜳr eru fullkomnud j Babylon, þa vil Eg vitia ydar, og Eg vil mitt hid (a) Nꜳdarſamlega Ord upp vekia yfer ydur, ad Eg flytie ydur aptur til þeſſa Stadar.

(a) (Nꜳdarſamlega Ord) Þad er, Þad hæſta Ord, ſem j þann Tijma hiellt vid Magt Gydinga Folke, og prijſaſt hiꜳ Dan. 9.

11. Þviad Eg veit vel hvorn Þanka Eg hefe til ydar (ſeger DRottinn) ſem er, Þanka Fridarens, enn eige Pijnunnar, ſo ad Eg ſkal giefa ydur þa Ending ſem þier vænted epter.

12. Og þier munud ꜳkalla Mig, og ganga burt og bidia Mig, og Eg vil Bænheyra ydur.

13. Þier munud Mijn leita, og Mig finna, þvi ef þier leited mijn af ollu Hiarta,

14. Þa vil Eg lꜳta finna Mig af ydur, ſeger DRottinn, og Eg vil umſnua ydar Fangelſe, og ſamanſafna ydur fra allshꜳttudu Folke, og fra ollum þeim Stodum til hvorra ad Eg hefe j burt ſkufad ydur, ſeger DRottinn, og Eg vil flytia ydur aptur til þeſſa Stadar, hvadann Eg liet j burt flytia ydur.

15. Þvi þier meined þad, ad DROTTinn hafe uppvaked ydur Propheta j (b) Babylon.

(b) (Babylon) Þad er, Þier ſkulud ecke trua ydar Spꜳmonnum j Babylon, Eg hefe þa ecke uppvaked, ſo ſem þier meined.

16. Þviad ſo ſeger DRottenn um þann Kongenn ſem ſitur a Davids Stoole, og um allt þad Folk ſem ad bygger j þeſſum Stad, ſem er um ydar Brædur, ſem ecke eru j burt flutter med ydur j Herleidingena.

17. Jꜳ, ſo ſeger DROTTinn Zebaoth, Siꜳ þu! Eg vil ſenda Sverd, Hungur og Drepſott, a medal þeirra, og Eg vil breyta vid þa ſem vid vondar Fijkiur, þær ed Manne er Vidbiodur vid ad eta.

18. Og a bak til vid þa vil Eg vera med Sverde, Hungre og Drepſott, og Eg vil þa ecke vera lꜳta j neinu Konga-Rijke a Jordu, ſo ad þeir ſkulu verda ad Bolvan, Undrum, Hꜳdung, og ad Spotte, a medal allra Þioda, til hvorra ad Eg mun utſkufa þeim,

19. Af þvi, ad þeir hlyddu ecke mijnum Ordum, ſeger DRottinn, Eg, hvor ed ſende (c) alla Tijma mijna Þienara Prophetana til ydar;

ydar, enn þier villdud ecke heyra, seger DRottinn. (c) (Snemma.)

20. Enn þier aller sem Hertekner erud j burt flutter, þa sem Eg hefe lated burt fara fra Jerusalem til Babylon, Heyred þier Ord DROTTins!

21. So seger DROTTinn Zebaoth, Gud Jsraels, j giegn Achab, Syne Kolaia, og j giegn Zedechia, Syne Maseia, sem spaa ydur Lygar under mijnu Nafne, Sioa þu! Eg vil giefa þa j Hendur Nabuchodonosor, Kongsins af Babylon, Hann skal lata sla þa fyrer ydar Augum.

22. So ad af þeim somu skal giorast ein Bolvan, a medal allra Ganganna ur Juda, sem eru j Babylon, og segia, DROttenn giore þier lijka sem Zedechia og Achab, Hvøria Kongurenn j Babylon liet steikia a Ellde.

23. Fyrer þad þeir høfdu framed eina Heimsku j Jsrael, og drijgt Hooraner med ødrum Konum, og predikad falskt j mijnu Nafne, hvad Eg hafde ecke boded þeim, Þetta veit Eg, og votta þad, seger DROTTinn.

II. 24. Og a mote Semaia af Nehalam skalltu segia.

25. So seger DROttinn Zebaoth, Gud Jsraels, Af þvi, ad þu utsender Briefed under þijnu Nafne, til alls Folksins, þess sem er j Jerusalem, og til Kiennemannsins Sephania, Sonar Maseia, og til allra Prestanna, og segder.

26. DROTTinn hefur sett þig til Prests, j Stadenn Joiada Prests, so ad þier skulud vera Adsionarmenn j Huse DROTTins, yfer øllum Sinnulausum og Spaasagnar-Mønnum, so ad þu legger þa j Fangelse og Stock.

27. Enn hvar fyrer straffar þu nu ecke Jeremiam af Anathoth, sem spaaer fyrer ydur?

28. Af þvi hann hefur sendt Bod til vor j Babylon, og lated segia oss, ad þad skule enn leinge vara, Bygged upp Hus, sem þier kunned j ad bua, og planted Alldingarda, so ad þier eted Avoxtenn þar af.

29. Hviad Zephanias Prestur las þad sama Brief, og liet Jeremiam Propheta heyra þad.

30. Þar fyrer þa skiede Ord DROTTins til Jeremia, og sagde.

31. Sended hiedann til allra þeirra sem hertekner eru, og lated segia þeim. So seger DROTTinn j mote Semaia, af Nehalam, Þar fyrer, ad Semaia spaaer fyrer ydur, og Eg hefe þo ecke sendt hann, og hann giører þad, ad þier setied ydar Traust uppa Lygar,

32. Þar fyrer seger DROTTinn so, Sioa þu! Eg vil heimsækia Semaia af Nehalam, ásamt med hans Sæde, so ad eingenn af hans skal vera a medal Folks þessa, og hann skal ecke sioa þad hid Gooda sem Eg vil giora mijnu Folke, seger DROTTinn, Hviad hann hefur frasnued þeim fra DROttne med sijnum Ordum.

## XXX. Capitule.

Jeremias heiter (I) J Einne Bok Gydingunum Babylon bæde Guds Reide, og so Guds Naad; Einnig (II) fyrer-seger hann Ovinum Gydinganna Straff, Guds Folke til Huggunar, og Hugsvølunar, fyrer Christum.

I. Þetta er þad Ord sem skiede af DROttne til Jeremia.

2. So seger DROTTinn Gud Jsraels, Skrifadu þier øll þau Ordenn j eina Bok, sem Eg tala til þijn.

3. Hviad sioa þu! Sa Tijme kiemur, seger DROTTinn, Ad Eg vil snua Herleidingunne (a) Mijns Folks, bæde Jsraels og Juda, seger DROTTinn, Og Eg vil flytia þa jnn aptur j þad Landed sem Eg gaf þeirra (b) Forfedrum, so ad þeir skulu þad eignast.

(a) (Mijns Folks) Ecke alls Jsraels, helldur nockra.

(b) (Forfedrum) Þad er, Abrahams Fyrerheit um Christum, sem er þad Andlega Land.

4. Enn

4. Enn þesse eru þau Ordenn sem DRot-
tinn talade um Israel og Juda.
5. Þviad so seger DROTTinn, Vier
heyrum Raustena (c) Skielfingarennar, ad
þar er ecke utann Hrædsla, og eingenn Fridur.
(c) (Skielfingarennar) Þad er, Hingad til høfum
vier heyrt Løgmaalid.
6. Enn spyried ad þvi, og sioaed Hvort ad
Karl-Madurenn meige Barn fæda? Hvør-
nenn geingur þad þa til, þad Eg sie alla Menn
hafa sijnar Hendur lagdar ad sijnum Lendum,
so sem Konur j Barns Sott, og øll Andlit e-
ru so føl?
7. Þad er Sannarlega eirn mikell Dagur,
og hans Lijke var eige, og er eirn Hørmungar-
Tijme j Jacob, þo skal honum þar ut af hioal-
pad verda.
8. Enn þad skal skie a þeim sama Tijma,
seger DROTTinn Zebaoth, ad Eg vil sun-
durbriota hans Ok af þijnum Hoalse, og j
sundurslijta þijn Bønd, so ad hann skal ecke
meir þiona annarlegum þar ut j.
9. Helldur DROTTne GUde þeirra, og
so þeirra Konge David, hvørn Eg vil upp
vekia þeim.
10. Þar fyrer vertu ohræddur Þu Minn
Þion Jacob, seger DROTTinn, og hrædst
ei þu Israel. Þviad sioa þu, Eg vil hioalpa
þier ur fiarlægum Løndum, og þijnu Sæde
af þeirra Herleidingar-Lande, so ad Jacob
skal aptur koma, j Fride lifa, og Gnægd hafa,
og eingenn skal skielfa hann.
11. Þviad Eg er hioa þier, seger DRot-
tinn, ad Eg vil hioalpa þier. Þvi Eg vil eirn
Enda giora vid alla þa Heidingiana, til hvørra
ad Eg hefe utdreift þier, Enn vid þig vil Eg
ecke eirn Enda giora, Enn aga vil Eg þig med
Moata, so ad þu hallder þig ecke saklausann.
12. Þviad so seger DROTTinn, Þijn
Lemstur eru ein Orvæntanleg Jllska, og þijn
Soar eru Ogrædande.
13. Þijn Moalefne ræker eingenn, so hann
binde um þaug, Eingenn kann þig ad græda.
14. Aller þijner Astviner þeir forgleymo
þier, skeyta ecke um þad. Eg hefe sleiged þig
lijka sem ad Eg skyllde sloa eirn Ovin, med Mi-
skunarlausre Hirting, vegna þinna mikellra
Misgiorda, og fyrer þinna sterkra Synda
Saker.
15. Hvar fyrer ber þu þig jlla yfer þinne
Skadsemd, og yfer þijnum Orvæntanlegum
Jllsku-Harmkvælum? Enn Eg hefe þo giort
þetta vegna þinna stooru Misgiorda, og fyrer
þinna sterkra Synda Saker.
II. 16. Þar fyrer skulu aller þeir sem þig hafa
eted uppetner verda, og aller þeir sem ad þier
hafa þreyngt skulu aller hertekner verda, og
þeir ed þig hafa rænt skulu rønder verda, og
aller þeir sem þig hafa ruplad skulu ruplader
verda.
17. Enn þig vil Eg aptur heilbrigda, og
þijn Soar græda, seger DROTTinn, af
þvi þu kallast hin Utrekna, og Zion er Su sem
eingenn spyr epter.
18. So seger DROTTinn, Sioa þu!
Eg vil snua Herleidingunne Tialldbudanna
Jacobs, og Miskunsamlegur vera yfer hans
Bustødum, og Stadurenn skal upp aptur
byggiast a sinne Hæd, og Mustered skal stan-
da epter sijnum Skamte.
19. Og Lofsøgn og Gledennar Saungur
skal þadann ut ganga. Þviad Eg vil fiolga
þa, enn ecke minka, og Eg vil giora þa Hei-
darlegre, enn ei minne Hoattar.
20. Þeirra Syner skulu vera lijka sem
aadur fordum, og þeirra Søfnudur skal
Lucku hafa fyrer mier, þviad Eg vil sækia
heim alla þa sem hana þvinga.
21. Og hennar Høfdingiar skulu ut af
þeim frammkoma, og hennar Stiornare skal
utganga af þeim, og hann skal hallda sier til
Mijn, þvi hvør er hann sem adhyllest Mig med
einu vilingu Hiarta? seger DROTTinn.
22. Og þier skulud vera mitt Folk, og Eg
vil vera ydar Gud.
23. Sioa þu, Þar mun koma eirn Stor-
mur DROTTins, med Grimmd, eirn Hræ-

delegur Stormur mun falla yfer Hofud þeirra hinna Ogudlegu.

24. Þviad Grimmdar-Reide DROttins mun eige afloata, fyrr enn hann giorer þad, og þvi til vegar kiemur sem Honum byr j Sinne. A þeim siijdarsta Tijma skulud þier soa sodann ad formerkia.

## XXXI. Capitule.

Gud DRottenn lofar (I) ad snua Hriggd þeirra Gydinga i Glede, er snere sier til Hans; og (II) ad giora Einn Nyann Saattmaala vid þa.

1. A þeim sama Tijma, seger DROttinn, vil Eg vera Gud alls Israels Slektes, og * þeir skulu vera Mitt Folk.

*2 Cor. 6, 16. Ebr. 8, 10.

2. So seger DROTTinn, Þad Folk sem epter er vorded fyrer Sverdenu, þad hefur funded Naad j Eydemorkenne, Israel fer burt til sinnar Hvijldar.

3. DROTTinn birtest mier aaleingdar, Eg hefe og alla Tijma elskad þig, þar fyrer hef Eg ladad þig ad Mier af skiærre Miskunseme.

4. Nu vel! Eg vil byggia þig upp aptur, so ad þu skallt heita Uppbyggd, Þu Jungfru Israel, þu skallt enn nu fara med Gledennar Bumbuslaatt, og utganga j Dansenn.

5. Þu skallt planta Vijngarda aptur ad nyu, a Fiollum Samarie, Planta munu Menn, og j Pijpur bloasa.

6. Þviad sa Tijme mun enn koma, ad Vard-Mennerner a Ephraims Fialle munu kalla, Stondum upp, og loatum oss ganga upp til Zion, til DROTTins Vors Guds!

7. Þviad so seger DROTTinn, Kalled yfer Jacob med Glede, og fagned yfer þvi Hofdenu medal Heidingianna, Kalled hoatt, Hroosed, og seged, DROTTinn! Hiaalpa þu þijnu Folke sem epter er orded j Israel!

8. Sioa þu, Eg vil flytia þa ut af Nordurlandenu, og Eg vil samansafna þeim j fra Jardarennar Enda, bæde Blindum, Hölltum, Oliettum, og Sængar-Konum, so ad þeir skulu koma hingad aptur med miklum Hoop.

9. Þeir munu koma graatande, og bidiande, so vil Eg segia þeim Leid, Eg vil leida þa i hiaa Vatnslækiunum a slietta Veigenum, so ad þeir steyte sig ei, þviad Eg er Israels Fader, og Ephraim er Minn Frumgietenn Son.

10. Heyred, þier Hiner Heidnu! Ord DROttins, og kunngiored þad j Fiarlægd j Eyunum, og seged, Sa sem j sundurdreift hefur Israel Hann mun eirnenn samansafna honum aptur, og Hann mun vardveita hann, so sem eirn Hyrder sijna Hiord.

11. Þviad DROttinn mun frelsa Jacob, og leysa hann ut af Hende hins Vollduga.

12. Og þeir munu koma og gledia sig a Hædunum til Zion, og þeir munu saman flyckiast j Hoop, til þeirra Giafanna DROttins, sem er, til Korns, Vijns, Vidsmiors, og ungra Sauda og Nauta, so ad þeirra Saaler, munu vera lijka sem einn Vatnsrijkur Urtagardur, og skulu ei framar meir angrader verda.

13. Þa munu Meyarnar gladar vera j Dansenum, þar med Æsku-Mennerner, og hiner Gomlu hvor med odrum. Þviad Eg vil snua þeirra Sorg j Glede, og hugsvala þeim og gledia þa, epter þeirra Hormungar.

14. Og Eg vil giora Prestanna Hiarta fullt af Glede, og mitt Folk skal hafa allskonar Nægd, af mijnum Goasum, seger DROttinn.

15. So seger DRottinn, * Menn heyra kveinunarlegt Hliod, og beiskann Graat, a Hædunum, Rachel grætur yfer sijnum Bornum, og vill ei huggast loata yfer sijnum Bornum, þviad þad er utgiort um þau.

* Matth. 2, 18.

16. Enn so seger DROTTinn, Laat þitt Hroop og Graat, og Taara-Follenn þinna Augna, þviad þitt Erfide skal vel launad verda, seger DROTTinn. Þeir skulu aptur koma af þvi Ovina Landenu.

17. Og þijner Epterkomendur hafa margs Gods ad vænta, seger DROTTinn, þviad þijn Born skulu aptur koma j sijn Landamerke.

18. Eg hefe vel heyrt Hvornen þad Ephraim klagar sig, Þu hefur agad mig, Eg er og eirnenn Agadur, so sem eirn Lijfadur Kalfur. Snu þu mier, þa er nier snued, Þviad Þu DROTTinn ert minn Gud!

19. Þa er eg snereft bætta eg mig. Þviad epter þad eg took ad vitkast slo eg a mijnar (a) Lendar, þviad eg em til Skammar vordenn, og stend riodur af Ovirdingu, þviad eg hlyt ad lijda þær Hæadungar mijns Ungdoms.

(a) (Lendar) Ad slaa a Lendarnar, so sem Kvinnur giora j Barnsfædingunne.

20. Er Ephraim ei Minn Dyrmætur Sonur, og Mitt Elskulegt Barn? Þviad Eg minnunst enn nu vel a þad hvad Eg sagde til hans, þar fyrer sundur brotnar mitt Hiarta til hans, so ad Eg hlyt honum miskunsamur ad vera, seger DROttinn.

21. Reistu þier upp Grafar-Teikn, settu þier upp Sorgar-Merked, og set þitt Hiarta a þa hinu trodnu Veigena, sem eg hefe a geinged. Þu Jungfru Israel! snu þu aptur, snu þier aptur til þessara þinna Stada.

22. Hvorsu leinge þa villtu ganga þa villu Veigena, þu hin frafallna Dotturenn? Þviad DROttinn mun skapa nockud Nytt i Landenu, (b) Kvinnann mun umkringia Manninn.

(b) (Kvinnann) Þetta understanda þeir hiner Gomlu ut af Christo og Mariu, þad Christus sie Sa Madur af Maria umkrijngdur, þad er Getenn og Fæddur, etc.

23. So seger DROttinn Zebaoth, Gud Israels, Menn munu enn tala þesse Ord aptur j Landenu Juda, og j þess Stodum, þa ed Eg mun snua þeirra Herleidingu, DROttinn hann Blesse þig, þu Riettlætisins Bustadur, þu Hid Heilaga Fiall!

24. Og Juda med ollum sijnum Stodum, skal bua þar inne, þar med eirnenn Akur-Karlar, og þeir sem Hiardar giæta.

25. Þviad Eg vil endurnæra þær þreyttu Saalernar, og sedia þær enu Sorgbitnu Saaler.

26. Þar fyrer vaknade Eg, og leit upp, og hafde sofed so vært.

27. Sia þu, Sa Tijme kiemur, seger DROttinn, ad Eg vil nidur saa Hus Israel, og Husid Juda, bæde med Menn og Fienad.

28. Og lijka so sem Eg vakte yfer þeim, til ad uppræta, sundurslijta, af ad briota, fordiarfa, og til ad plaaga, so vil Eg og vaka yfer þeim til ad uppbyggia, og adgroodursetia, seger DROttinn.

29. A þeim sama Tijma munu Menn eige framar meir segia, Fedurner hafa eted þad beiska Vijnbered, og Barnanna Tennur eru sliofar vordnar.

30. Helldur skal hvor eirn deya fyrer sinna Misgiorda saker, Og hvor Madur sem etur beiskt Vijnber, hans Tennur skulu sliofgast.

31. * Sia þu, Sa Tijme kiemur, seger DROTTinn, þa vil Eg giora eirn Nyann Saattmaala vid Israels Hus, og vid Hused Juda. * Ebr. 8, 8.

32. Ecke so sem Sa Saattmaalenn var sem Eg giorde vid Fedur þeirra, þa ed Eg took þa vid Hond, og leidde þa ut af Egyptalande, hvorn Saattmaala þeir hafa ecke hallded, og Eg hlaut ad þvinga þa, seger DROttinn.

33. * Helldur skal þetta vera Sa Saattmaalenn, sem Eg vil giora vid Israels Hus hier epter, seger DROTTenn, Eg vil giefa mitt Logmaal j þeirra Hiortu, og innskrifa þad j þeirra Hugskot, og þeir skulu vera mitt Folk, So vil Eg vera þeirra Gud.

* Ebr. 10, 16. 17.

34. Og eingenn mun læra annann, og ei eirn Brodurenn annann, Segiande, Þecktu

DRottinn, Helldur skulu þeir aller, bæde smaaer og storer, þeckia Mig, seger DRottinn, þviad Eg vil fyrergiefa þeim þeirra Misgiorning, og alldrei framar j Minne leggia þeirra Synder.

35. So seger DROTTinn, Sa ed Soolena giefur Deigenum til Upplysingar, og Tungled og Stiornunnar epter þeirra Gange, Nottenne til Lioss, Hann sem hrærer Sioafar-Hafed, so ad þess Bylgiur upp þioota, DROTTinn Zebaoth er hans Nafn.

36. Nær ed soddann Tilskipan legst af fyrer Mier, seger DROTTinn, þa skal einnenn af takast Israels Sæde, so ad þad skal ecke meir vera eitt Folk fyrer Mier æfenlegana.

37. So seger DROTTinn, Nær ed Mann kann ad mæla Himenenn þar uppe, og rannsaka Grundvollenn Jardarennar, þa vil Eg og burt kasta ollu Israels Sæde, fyrer allt þad sem þeir hafa giort, seger DROTTinn.

38. Sioa þu, Sa Tijme skal koma, seger DROttinn, þad sa Stadurenn DRottins skal upp byggdur verda, j fra Turnenum Hananeels, allt til Hyrningar Portsins.

39. Og sa Mæle-Streingurenn skal ganga vldara ut, hioa þvi hinu sama, allt jnn til Garebs Hædar, og snua sier so til Gohath.

40. Og allur sa Dalurenn Lijkanna og Oskunnar, med ollum Akrenum, allt til Lækiarens Kidron, allt jnn til þess Hornsins a Hestaportenu, moot Austrenu, þa skal vera DRottne helgad, so ad þad skal alldreige meir ofanrifed, ellegar nidur broted verda.

## XXXII. Capitule.

Jeremias (I) hefur spaad Zedechias Konunge Fangelse i Jerusalem; Enn (II) med þvi, ad hann keypte Einn Akur i Anathoth, bodar hann Jerusalem, ad hennar Folk munde komast aptur ur Herleidslunne; Hvar epter (III) Jeremias bidur Gud DRottenn um Heill þar til, og (IV) DRottenn svarar Einnig Naadarsamlega þar uppa.

I. Þetta er þad Orded sem skiede til Jeremia af DROTTne, A þvi Tijunda Aare Zedechia Konungsins Juda, hvert ad er hid aatianda Aar Nabuchodonosor.

2. (Þann Tijd laa j kringum Jerusalem Herlided Konungsins af Babylon,) Enn Prophetinn Jeremias laa þa fangenn j Forgardenum Mirkvastofunnar, j hioa Huse Konungsins Juda.

3. Þar ed Zedechias, Kongurenn Juda, hafde laated jnne lykia hann, og sagt, Hvar fyrer spaaer þu, og seger, So seger DRottinn, Sioa þu, Eg vil giefa þennann Stad j Hendur Kongsins af Babylon, og hann skal yfervinna hann.

4. Og Zedechias, Kongurenn Juda, skal ecke umflued gieta ur Hondum þeirra Chaldeanskra, helldur vil Eg giefa hann j Hendur Konungsins af Babylon, so ad hann skal tala Munnlega vid hann, og þad hann skal sioa hann med Augum sijnum.

5. Og hann mun j burt flytia Zedechiam til Babylon, þar skal hann og vera, þangad til ad Eg vitia hans, seger DROTTinn, Þvi þo ad þier strijded a moote þeim Chaldeanskra, þa skal þad þo ecke luckast ydur.

II. 6. Og Jeremias sagde, Ord DRottins er skied til mijn, og seger.

7. Sioa þu! Hanameel, Sonur Sallum, Fodurbrodur þijns, kiemur til þijn, og seger, Kiære, Kaup þu minn Akur j Anathoth. Þviad þu ert naanastur Ettmadur til ad kaupa hann.

8. So kom Hanameel, Brodur-Son Fodur mijns, til mijn (so sem þad DRottinn hafde sagt) fyrer Forgardenn Mirkvastofunnar, og sagde til mijn, Kiære! Kaup þu minn Akur j Anathoth, sem liggur j Ben Jamin Lande, þviad þu hefur Erfda-Riettenn þar til, og þu ert hinn naanaste, Kiære! Kaup þu hann. Þa formerkte eg, ad þad var Ord DROTTins.

9. Og

9. Og eg keypta Akurenn, af Hanameel, Brodur-Syne Fodur mijns, j Anathoth og vog honum ut Peninga, Siø Siclos, og Tiju Silfur-Peningana.

10. Og skrifade eitt Brief, og Innsiglade þad, og tok Vitnisburde þar til, og eg vog Peninga ut j Meta-Skaalum.

11. Og eg tok þad ed Innsiglada Kaup-Briefed til mijn, epter Riette og Sidveniu, og so eina opna utskript.

12. Og eg fieck þad sama mitt Kaup-Brief Baruch, Syne Nerias, Sonar Mahasia, ad hiaaveranda Hanameel, mijns Fodur-Brodur-Syne, og þeim Vottunum sem stoodu j Kaup-Brefenu, og j Naaveru allra þeirra Gydinga sem biuggu hiaa Forgardenum Mirkvastofunnar.

13. Og eg baud Baruch fyrer þeirra Augum, og sagde.

14. So seger DROTTinn Zebaoth, GUD Israels, Tak þesse Brief, þetta hid Innsiglada Kaup-Briefed, og þa hina opnu Utskriptena, og legg þau j eitt Leirkier, so ad þau meige leinge vardveitast.

15. Þviad so seger DROTTinn Zebaoth, GUD Israels, Enn skulu Menn kaupa sier Hus, Akurlond og Vijngarda, j þessu Lande.

III. 16. Og þa ed eg hafde afhendt Baruch, Syne Nerias, þetta Kaup-Brief, bad eg til DRottins og sagde.

17. O DROttinn DROttinn! Siaa! Þu giorder Himen og Jord fyrer þinn hinn mikla Krapt, og fyrer þinn utriettann Armlegg, og þar er eingenn Hlutur Omøgulegur fyrer þier.

18. Þu sem giorer Miskunseme vid margar Þusunder, og endurgielldur Illsku Fedranna, j Barmenn þeirra Barna epter þa, Þu hinn Mikle og Ofluge GUD! DROTTinn Zebaoth er þitt Nafn.

19. Mikeil af Raade, og Maattugur af Giorninge, og þijn Augu standa openn yfer øllum Vegum Mannanna Barna, so ad þu giefer hvørium epter sinne Verkan, og epter Avextenum sijns Athæfes.

20. Þu sem giort hefur Takn og Stormerke j Egypta-Lande, allt til þessa Dags, bæde vid Israel, og (adra) Menn, og giorder þier eitt Nafn, so sem þad er nu þennann Dag.

21. Og þu flutter þitt Folk Israel ut af Egypta-Lande, fyrer Takn og Stormerke, fyrer eina volldug Hønd, fyrer utriettann Armlegg, og fyrer storar Skielfingar.

22. Og gafst þeim þetta Land, hvort þu hafder svared þeirra Forfedrum, ad þu villder giefa þeim eitt Land j hvøriu ad flytur Miolk og Hunaang.

23. Og þa er þeir komu þar jnn, og eignudust þad, þa hlyddu þeir ecke þinne Raust, og geingu ecke helldur epter þijnu Løgmaale, og þeir yfergaafu allt þad sem þu baudst þeim ad giora, þar fyrer lietstu og eirnenn alla þessa Ogiæfu koma yfer þa.

24. Siaa þu! Þesse Stadur er bijlagdur, so þad hann skule yferunnenn og uppgiefenn verda j Hendur þeirra Chaldeis, sem strijda a mote honum, fyrer Sverde, Hungre og Drepsott, og sem ad þu hefur sagt, so geingur þad nu til, þad sier þu.

25. Og þu seger til mijn DROTTinn DRottinn, Kaup þu einn Akur fyrer Peninga, og haf Votta þar vid, enn Stadurenn skal þo uppgiefast j Hendur þeirra Chaldeansku.

IV. 26. Og Ord DRottins þad skiede til Jeremia, og sagde.

27. Siaa þu! Eg DROTTinn er eirn GUD alls Hollds, Skyllde mier nockud Omøgulegt vera?

28. Þar fyrer seger DROTTinn so, Siaa þu! Eg gief þennann Stad j Hendur Chaldeis, og j Hønd Nabuchodonosors Kønungsins af Babylon, hann skal yfervinna hann.

29. Og þeir Chaldei, sem strijda a moote þessum Stad, munu koma hier jnn, og kveikia

kia Elld j honum, og brenna hann upp, og öll þau Husenn, ofann a hvorra Ræfrum er, þeir baaru Reykelse fyrer Baal, og offrudu annarlegum Gudum Dryckiar-Offre, so ad þeir reittu mig til Reide.

30. Þviad Jsraels Born og Juda Born, hafa alla Tijma, þegar j fra þeirra Æsku-Alldre, giort þad sem Mier lijkar jlla, og Jsraels Born hafa reitt mig til Reide med sijnum Handa-Verkum, seger DROTTinn.

31. Þviad þadann j fra ad þesse Stadur var uppbyggdur, hafa þeir giørt mig Reidann og Heiptarfullann, allt til þessa Dags, so ad Eg hlyt burt ad skufa honum fra mijnu Auglite.

32. Fyrer allra Jllgiorda Saker Jsraels Barna, og Juda Barna, sem þeir hafa giort, ad þeir reittu mig til Reide. Þeir sialfer, þeirra Kongar, Hofdingiar, Prestar, Prophetar, og þeir sem bua j Juda og Jerusalem,

33. Hafa snued Bakenu vid Mier, og ecke Andlitenu, Þo Eg liete (a) alla Tijma kienna þeim, enn þeir villdu ecke heyra nie bæta sig.

(a) (Snemma.)

34. Þar med hafa þeir sett sijnar Svijvirdingar j þad Hused sem af Mier hafde Nafn, so ad þeir saurgudu þad.

35. Og þeir hafa uppbyggt Hædernar Baals j BenHinnoms Dal, so ad þeir uppbrennde Sonu sijna og Dætur fyrer Moloch, Hvad Eg hafde ecke boded þeim, og þad kom alldrei j mitt Sinne, ad þeir skylldu giora sodann Svijvirding, hvar med ad þeir komu Juda so til ad syndgast.

36. Og nu þess vegna, talar DROTTinn GUD Jsraels so um þennann Stad, af hvorium þier seged, ad hann skule fyrer Sverde, Hungre og Drepsott, yfergiefenn verda, j Hendur Konungsins af Babylon.

37. Sioa þu! Eg vil safna þeim ur øllum Londum, sem Eg hefe j burt kastad þeim, j minne mikellre Reide og Grimmd, og Omiskunseme, og Eg vil flytia þa hingad aptur til þessa Stadar, so ad þeir skulu ugglauser bua.

38. Og þeir skulu vera Mitt Folk, so vil Eg vera þeirra GUD.

39. Og Eg vil giefa þeim eitt samhelldid Hiarta og Athæfe, so ad þeir skulu oottast Mig alla sijna Lijfdaga, so ad þad skule þeim vel vegna og þeirra Bornum epter þa.

40. Og Eg vil giora eirn Eylijfann Saattmaala vidur þa, so Eg vil ei þvi linna ad giora þeim til gooda, og Eg vil giefa þeim mijna Hrædslu j Hiartad, so ad þeir skulu ecke j burt vijkia fra mier.

41. Og þad skal vera Mijn Glede, ad Eg skal þeim gott giora, og trulegana vil Eg groodursetia þa j þessu Lande, af ollu Hiarta, og af allre Saalu.

42. Þviad so seger DROttinn, Lijka sem þad Eg hefe alla þessa hina miklu Ogiæfu laated koma yfer þetta Folk, so vil Eg og laata allt Gott koma yfer þa, þad sem Eg hefe talad til þeirra.

43. Og þar skulu enn nu kaupast Akrar j þessu Lande, um hvort ad þier seged, þad mun j Eyde liggia, so ad þar mun hvorke Folk nie Fienadur jnne vera, og þad skal giefast j Hendur þeirra Chaldeanska.

44. Þo skulu Menn kaupa samt Akurlond fyrer Peninga, og þad sama briefa, innsigla og vitna j BenJamins Lande, og kringum Jerusalem, og j Stodunum Juda, j Stodunum a Fiallbyggdunum, j Stodunum j Dolunum, og j þeim Stodunum moot Sudrenu, þvi Eg vil snua þeirra Herleidingu, seger DROttinn.

## XXXIII. Capitule.

*Jeremias talar um Frelsun þeirra Gydinga er giordu Jdran, fyrer Messias, þeirra Konung og Kennemann.*

Og Ord DROTTins þad skiede til Jeremiam j annad Sinn, þa hann var enn

enn nu jnne luckt ur j Forgardenum Mirkva-Stofunnar, og sagde,
2. So seger DROTTinn, sem slijkt gior-er, verkar og frammkvæmer, DROT-tinn er hans Heite.
3. Kalla þu til Mijn, þa vil Eg svara þier, og Eg vil kunngiora þier mikla og megtuga Hlute, sem þu veitst ecke.
4. Þviad so seger DROTTinn, Gud Israels, af Husunum þessa Stadar, og af Husunum Kongsins Juda, sem nidur eru brotenn, ad giora af Hervirke til Varnar.
5. Og af þeim sem eru hier innkomner ad strijda a moote þeim Chaldeis, so ad þeir upp-fylle þa somu med Dauda Lijkame, hvoria Eg vil jhel sloa j minne Reide og Heiptar-Grimmd, Þviad Eg hefe byrgt mijna Asionu fyrer þes-sum Stad, fyrer Saker allra þeirra Illsku.
6. Sioa þu! Eg vil græda þa og heilbrigda giora, og Eg vil auglysa þeim Yfergnæfanle-gaun Frid og Truskap.
7. Þviad Eg vil snua Herleidingunne Ju-da, og Herleidingunne Israels, og Eg vil uppbyggia þa so sem fra Upphafe.
8. Og Eg vil hreinsa þa ut af ollum Mis-giordum, medur hvorium þeir hafa syndgast a moote Mier, og Eg vil fyrergiefa þeim alla Misgiorninga, medur hvorium þeir hafa syndgad, og Yfertrodslu giort, a moote Mier.
9. Og þad skal vera Mier eitt gledelegt Nafn, Frægd og Forprijs, a medal allra Hei-denna Pioda a Jordu, nær ed þeir foa ad hey-ra allt þad hid gooda sem Eg giore þeim, so ad þa mun furda þad, og ægia allur sa Gode, og allur sa Fridur sem Eg vil giefa þeim.
10. So seger DROttinn, j þessu Tak-marke, af hvorin þier seged, Þad er j Eyde, med þvi ad þar eru hvorke Menn nie Fienadur j þeim Stodunum Juda, og a þeim Strætu-num til Jerusalem (sem so eru j Eyde logd, ad þar er hvorke Folk neitt, nie Borgar-Menn, nie Fienadur jnne)
11. Þa skal þo samt þar jnne heyrast aptur Hliomurenn af Gledenne, og Unadsemden-ne, Raustenn Brudgumans og Brudaren-nar, og so þeirra Raust sem segia, Packed þier DROTTne Zebaoth, þad hann er so Noadarsamlegur, og þad hann giorer Ey-lijflega til Goda, og þeirra sem færa Packlæ-tis-Offur j Hused DROTTins, Þviad Eg vil snua Herleidingunne Landsins, lijka sem fra Upphafe, seger DROTTinn.
12. So seger DROTTinn Zebaoth, J þessum Stad, sem so er j Eyde, ad þar eru hvor-ke Menn nie Fienadur jnne, og j ollum hans Stodum, þa skulu samt enn aptur vera Hus þeirra Hiardar-Geymslu Manna, sem Hior-dena fæda.
13. Bæde j þeim Stodum a Fiallbyggdu-num, og j þeim Stodunum, j Dolunum, og j Stodunum moote Sudrenu, j BenJa-mins Lande, allt um kring Jerusalem, og j þeim Stodunum Juda, þar skulu enn nu ap-tur Hiarder ganga taldar ut og jnn, seger DROTTinn.
14. Sioa þu! Sa Tijme kiemur, seger DROTTinn, Ad Eg vil uppvekia þad Noa-duga Ord, hvort ad Eg hefe talad til Hussens Israel, og til Hussens Juda.
15. A þeim somu Dogum, og a þeim sama Tijma, vil Eg loata David upprenna eirn Riettlætis Kvist, og hann skal vera eirn Konun-gur, sem vel mun stiorna, og hann skal upphe-fia Doomenn og Riettvijsena a Jordu.
16. A þeim Tijma skal Juda holpenn vera, og Jerusalem bua ugglaust, og þeir munu kal-la Hann, DROttinn, sem er Vort Riettlæte.
17. Þviad so seger DROttinn, Þad skal alldrei bregdast David eirn Madur, sem skal sitia a þeim Stoolnum Hussens Israel.
18. Lijka so skal þad alldreige bregdast, ad þar skulu vera Prestar og Levitar fyrer Mier, sem giora Brenne-Offur, og upptendra Mat-Offur, og sloatra Offrenu Eylijflegana,
19. Og Ord DROttins þad skiede til Jeremia, og sagde.
20. So seger DROttinn, Nær ed Minn Saattmoale tekur til ad þrotua vid Dag og

 Nott,

Nott, so ad þar verde ei Dagur og Nott a sijnum Tijma,

21. Eins lijka so þa skal minn Scattmaale þriota vid Minn Þion David, so ad hann hafe ecke eirn Son til Kongungs a sijnum Stoole, og med þeim Levitunum og Prestunum Mijnum Þienurum.

22. Lijka sem Mann kann ecke ad telia Himensins Her, ei helldur ad mæla Sanden vid Sioafar-Hafed, eins so vil Eg fiolga Sæde Davids Mijns Þienara, og þeirra Levitanna sem mier þiona.

23. Og Ord DROttins skiede til Jeremiam, og sagde.

24. Hefur þu ecke sied hvad þetta Fólk talar og seger? Hvort hefur þo DROttinn j burt kastad þeim Tveimur Kinkvijslum, sem hann hefur utvaled, og (a) lasta mitt Folk, Lijka sem ad skyllde þad ecke framar meir vera mitt Folk.

(a) (Lasta) Þad er, Þeir koma Folkenu til Vantruar og Efasemdar.

25. So seger DROttinn, Hallde Eg ecke minn Scattmaala vid Dag og Nott, og þa Skickunena Himens og Jardar.

26. Þa vil Eg og eirnenn burt kasta Sædenu Jacobs, og Davids Mijns Þienara, so ad Eg take þa ecke ut af þeirra Sæde, sem stiorna skulu yfer Sæded Abrahams, Isaacs og Jacobs. Þviad Eg vil snua þeirra Herleidingu, og þeim Miskunsamur vera.

# XXXIV. Capitule.

Jeremias (I) spaaer Zedechias Konge ad hann munde deya i Fangelse i Babylon; En (II) Straffar þaa sem ecke helldu sitt Loford, ad gefa Brædur sina og Systur Lausar.

I. Þetta er þad Orded sem skiede af DROttne til Jeremiam, Þa ed Nabochodonosor, Kongurenn af Babylon, med ollu sijnu Herlide, og ollum þeim Konga-Rijkium a Jordu, sem under hans Vallde voru, og ollu Folke, bardest a mote Jerusalem, og ollum hennar Stodum, og sagde.

2. So seger DROTTinn, Gud Israels, Gack hiedann, og tala vid Zedechiam, Kongungenn Juda, og seig þu honum, So seger DROTTinn, Sioa þu, Eg vil giefa þennann Stad j Hendur Konungsins af Babylon, og hann skal upp-brenna hann med Ellde.

3. Og þu skallt ecke umflya hans Hond, helldur skallt þu gripenn verda, og giefenn verda j hans Hond, so ad þu skallt sioa hann med Augunum, og tala Munnlega vid hann, og koma til Babylon.

4. So heyr þu þo Zedechia! Konungurenn Juda, Ord DROttins, So seger DROttinn um þig, Eige skalltu deya fyrer Sverde, helldur skalltu j Fride deya.

5. Og so sem Menn hafa brennt yfer þijnum Forfedrum, hinum fyrre Kongunum, sem fyrer þig hafa vered, so munu Menn og eirnenn brenna yfer þier, og harma þig, Æ Herra! Þviad Eg hefe þad sagt, seger DROTTinn.

6. Og Jeremias Prophete talade oll þesse Ord til Zedechia, Konungsins Juda, j Jerusalem.

7. Þa þegar ad Herlided Kongsins af Babylon took ad beriast moot Jerusalem, og a moote ollum epterblijfande Stodum j Juda, sem var a moote Lachis og Aseka, þviad þesser voru enn epter a medal þeirra Stadanna Juda, so sem þeir hiner sterku Staderner.

II. 8. Þetta er þad Ord sem skiede af DROttne til Jeremiam, epter þad ed Kongurenn Zedechias hafde giort eirn Scattmaala vid allt Folked j Jerusalem, til ad uthroopa eitt Frelsunar-Aar.

9. So ad hvor skyllde giefa sinn Þræl, og hvor sijna Ambaatt frialsa, sem hann var Ebraiskur, og hun Ebresk, so ad eingenn Gydingur skyllde hallda annann fyrer Eignar-Þræl a medal þeirra Sialfra.

10. Þa hlyddu aller Hofdingiar, og allt Folked, sem under hofdu geinged soddann Scattmaala, ad hvor skyllde giefa sinn Þræl, og sijna Ambaatt frij, og hallda þa ei meir fyrer Eignar-Þræla, og þeir gaafu þa lausa.

11. Enn þar eptera toku þeir sig aptur, og heimtu til sijn þa Þienarana, og Þionustu-

Konur-

Konurnar aptur, sem þeir hofdu frialsa giefed, og þvijngudu þa til, ad þeir hlutu ad vera Prælar og Ambaatter.

12. Þa skiede Ord DROTTins til Jeremia, af DROTTne, og sagde.

13. So seger DROttenn, Gud Israels, Eg giorde eirn Saattmaala vid Fedur ydar þann Tijd Eg utleidde þa af Egyptalande, af þvi Prældoms Huse, og Eg sagde.

14. Nær ed Sio Aar eru umlidenn, þa skyllde hvor laata sinn Brodur Frialsann fra sier, sem være Ebreskur, og hefde sellt sig honum, og þionad j Sex Aar. Enn ydrer Fedur hlyddu Mier ecke, og hneygdu ecke sijn Eyru.

15. So hafed þier og eirnenn snued ydur j Dag, og giordud þad Mier vel þocknadest, þad þier lietud boda eitt Frelsunar-Aar, hvor vid sinn Naunga, og giørdud um þad eirn Saattmaala fyrer Mier, j þvi Husenu sem ad nefndt er epter Mijnu Nafne.

16. Enn þier snerud snøggt aptur, og vanhelgudud Mitt Nafn, og hvor heimte sinn Þionustu-Mann, og Þionustu-Konu aptur, sem þier hofdud Frialsa giefed, so ad hvor skyllde eiga sialfann sig, og þier kuged þa nu, so ad þeir hliota ad vera ydrer Prælar, og Ambaatter.

17. Þar fyrer seger DROTTinn so, Þier hlyddud Mier ecke, so ad þier utþroopudud eitt Frelsunar-Aar, hvor sijnum Brodur, og sijnum Naunga, Sia þu, so utþroopa Eg (seger DROTTinn) ydur eitt Frelsunar-Aar, til Sverdsins, til Drepsottarennar, til Hungursins, og Eg vil ecke laata ydur blijfa j neinu Kongarijke a Jordu.

18. Og Eg vil giora þad Folk sem yfertredur Minn Saattmaala, og helldur ecke þann Saattmaala Ordenn sem þeir giordu fyrer Mier, lijka so sem þann Kaalfenn hvorium ed þeir sundurskiptu j Tvo Stycke, og eru so geingner a millum beggia Styckianna.

19. Sem eru Hofdingiarner j Juda, Hofdingiarner j Jerusalem, Hyrd-Sveinarner, Prestarner, og allt Folked j Landenu, sem geingner eru millum þeirra Styckianna (a) Kaalfsins.

(a) (Kaalfsins) Þad hefur vered ein Wijsa til eins Merkis ad sa Same og Saattmaale skyllde halldast, med þvi þeir giørdu Wæru Guds Offre þar med, sem til Vitnisburdar Sannleikanum.

20. Og Eg vil giefa þa j sinna Ovina Hendur, og j þeirra Hendur sem sækia epter þeirra Lijfe, so ad þeirra Lijkamer skulu Fuglum under Himnenum, og Dyrum a Jordunne ad aatu verda.

21. Og Zedechiam, Kongenn Juda, og hans Hofdingia, vil Eg giefa j þeirra Ovina Hendur, og þeirra sem sækia epter þeirra Lijfe, og þvi Herlidenu, Kongsins af Babylon, þad sem nu er burt fared fra ydur.

22. Þviad sia þu, Eg vil bioda þeim (seger DROTTinn) og Eg vil flytia þa hingad aptur fyrer þennann Stad, og þeir skulu strijda a mote honum, og yfervinna hann, og brenna hann upp med Ellde, og Eg vil foreyda Stodunum Juda, so ad eingenn skal bua þar leingur.

# XXXV. Capitule.

Um Rechabitana, (I) Hversu ad þeirra Hlydne vid Fodur þeirra (II) Brixlade Gydingum um þeirra Ohlydne vid DRottenn þeirra Gud.

I. Þetta er þad Ord sem skiede af DRottne til Jeremiam, a Dogum Joachims, Sonar Josia, Konungsins Juda, og sagde.

2. Gack þu j Hus þeirra Rechabita, og tala vid þa, og leid þa j Hus DROTTins, j eina Capellu, og skeink þeim Vijn.

3. Þa tok Eg Jasania, Son Jeremia, Sonar Habazinia, med hans Brædrum, og øllum hans Sonum, og med giervollu Huse Rechabitanna.

4. Og leidde þa jnn j Hus DROttins, j þa Capelluna Hanans Barna, Sonar Jegdalia, þess Guds Manns, hvor ad er j hia Capellunne þeirra Hofdingianna, fyrer ofann Capelluna Maseia, Sonar Sallum, Dyravordsins.

5. Og Eg sette fyrer Born þeirra af Rechabita Huse, Staup og Skaaler, fullar af Vijne, og Eg sagde til þeirra, Drecked Vijn

6. Enn þau svorudu, Vier dreckum ecki Vijn, þviad Jonadab, Fader vor, Sonur Rechabs, hefur boded oss, og sagt, Pier og ydar Born skulud alldrei drecka neitt Vijn.

7. Og uppbyggia eingenn Hus, ongvo Kornsæde soa, ongva Vijngarda groodursetia, eige helldur hafa, Enn þier skulud bua j Tialldbudum, alla ydar Lijfdaga, uppa þad þier skulud leinge lifa, j þvi Landenu sem þier erud Vegfarande.

8. So hlydum vier nu þeirre Raustenne Fodurs vors Jonadabs, Sonar Rechab, j ollu þvi sem hann hefur boded oss, so ad vier dreckum ecke neitt Vijn um alla vora Daga, Hvorke vier nie vorar Husfreyur, Syner eda Dætur.

9. Og vier uppbyggium ecke helldur nein Hus ad bua j, og vier hofum hvorke Vijngarda, nie Akurlond, nie Kornsæde, helldur buum vier j Tialldbudum.

10. Og hlydum þvi, og giorum allt þad sem Fader vor Jonadab hefur boded oss.

11. Enn þa ed Nabochodonesor, Kongurenn af Babylon foor hingad upp j Landed, sogdum vier, Komum og latum oss fara til Jerusalem, undann Herlide þeirra Chaldeansku, og hinna Syrlendsku, og hofum so vered j Jerusalem.

II. 12. Þa skiede Ord DROttins til Jeremiam, og sagde.

13. So seger DROttinn Zebaoth, Gud Israels, Gack burt, og seg til þeirra j Juda, og til Borgaranna j Jerusalem, Vilied þier ecke bæta ydur, so ad þier hlyded mijnu Orde? seger DROttinn.

14. Ordinn Jonadab, Sonar Rechabs, verda halldenn, sem hann baud Bornum sijnum, ad þau skylldu ei drecka Vijn, og þau drecka ei Vijn allt til þessa Dags, af þvi þau hlyda sijns Fodurs Bode. Enn Eg hefe alla Tijma laated predika fyrer ydur, þo hlyded þier Mier ecke.

15. So hefe Eg og (a) alla Tijma sendt til ydar alla mijna Pienara, Prophetana, og laated segia, Snued ydur Hver j fra sijnu vondu Athæfe, og bæted ydvarn Lifnad, og eptirfilged ecke annarlegum Gudum, til þess, ad þiona þeim, þa skulud þier blijfa j Landenu, hvort ad Eg hefe giefed ydur og ydar Forfedrum. Enn þier villdud eige hneygia ydar Eyru, nie hlyda Mier.

(a) (Snemma.)

16. Þar þo Born Jonadabs, Sonar Rechab, hafa hallded sljns Fodurs Bodord, sem hann baud þeim, Enn þetta Folk hlyder Mier ecke.

17. Þar fyrer þa seger DROTTinn Gud Zebaoth, og GUd Israels, Sioa þu! Eg vil laata koma yfer Juda, og yfer alla Borgar-Menn j Jerusalem, alla þa Ogiæfu, sem Eg hefe talad a mote þeim, af þvi, ad Eg talade til þeirra, og þeir villdu eige heyra Mier, Eg kallade, og þeir villdu ecke svara Mier.

18. Og Jeremias sagde til Hussens þeirra Rechabita, So seger DROttinn Zebaoth, GUd Israels, fyrer þad, ad þier hlyddud Bode ydars Fodurs Jonadab, og hafed hallded alla hans Skipan, og giordud þad allt sem hann baud ydur,

19. Þar fyrer þa seger DROttinn Zebaoth, GUd Israels, so, Pad skal alldrei bresta Jonadab, Son Rechab, ad þar skal einhver ut af hans standa ætijd fyrer Mier.

## XXXVI. Capitule.

(I) Baruch les Eitt Bref upp, hvert (II) Joachim breaner: Enn þad er þo (III) skrifad aptur i annad Sinn.

I. A Þvi Fiorda aarenu Joachims, Sonar Josia, Kongsins Juda, skiede þetta Ord til Jeremia, af DROTTne, og sagde,

2. Tak eina Book, og skrifa þar j alla þa Ord-Rædu, sem Eg hefe talad til þijn, yfer Israel,

Israel, yfer Juda, og yfer ollu Folke, j fra þeim Tijma er Eg talade vid þig, sem er j fra Tijd Josia, allt til þessa Dags.

3. Ef skie mætte, ad Hused Juda, nær ed þeir heyra alla þa Ogiæfu sem Eg hugsa ad giora þeim, ad þeir villdu snua sier, hvor fra sijnu vondu Athæfe, ad Eg mætte so fyrergiefa þeim þeirra Misgiorninga.

4. Þa kallade Jeremias a Baruch, Neria Son. Sa hinn same Baruch skrifade j eina Book, af Munne Jeremiæ, alla þa Ord-Rædu DROTTins, sem hann hafde talad vid hann.

5. Og Jeremias skipade Baruch, og sagde, Eg er jnne byrgdur, so ad eg kann ei ad ganga j Hus DROTTins.

6. Enn gack þu þangad, og les þessa Book, j hvoria þu hefur skrifad þa Ord-Rædu Drottins, af mijnum Munne, fyrer Folkenu j Huse DROTTens, a Deige Fostunnar, og þu skallt lesa hana fyrer Eyrum alls Juda, sem hingad jnn koma ut af sijnum Stodum.

7. Ef ad so mætte skie, ad þeir villdu lijtelæta sig fyrer DROttne, med Bæna-akalle, og snua sier, sierhvor fra sijnu vondu Athæfe. Þviad su Reidenn og Grimmdenn er mikel, sem DROTTinn hefur umtalad j giegn þessu Folke.

8. Og Baruch, Neria Son, giorde allt þad, sem Prophetinn Jeremias baud honum, So ad hañ las þa Ord-Ræduna Drottins af Bookenne, j Huse DROTTins.

9. Enn so bar til a þvi Fimmta aarenu Joachims, Sonar Josia, Kongsins Juda, j þeim Niunda Maanade, þad bodud var ein Fasta fyrer DROTTne, ollu Folke til Jerusalem, og ollu þvi Folke sem kom til Jerusalem, ut af Stodunum Juda.

10. Og Baruch las þa Ord Ræduna Jeremiæ, ur Bookenne, j Huse DROTTins, j Capellu Gemaria, Sonar Saphan, Cantzelerans, j þeim hinum efra Forgarde, fyrer þvi nya Portenu a Huse DROTTins, fyrer ollu Folkenu.

11. Þa nu Michaia, Sonur Gemaria, Sonar Saphan, heyrde oll Ord DROTTins, ur Bookenne,

12. Þa gieck hann ofann j Kongsins Hus, j Cantzelied, og sioa þu! Ad þar sootu aller Hofdingiarner, Elisama Cantzeler, Delaia, Sonur Semaia, Elnathan, Achbor Son, Gemaria, Saphans Son, og Zedechia, Hanania Son, med ollum Hofdingium.

13. Og Michaia kunngiorde þeim alla þa Rædu, sem hann hafde heyrt, þa Baruch las af Bokenne fyrer Folksins Eyrum.

14. Þa sendu aller Hofdingiarner, Judi, Son Nathania, Sonar Salemia, Sonar Chusi, epter Baruch, og lietu segia honum, Tak þu Bookena med þier, af hvorre þu hefur lesed fyrer Folkenu, og kom so hingad. Og Baruch, Neria Son, tok Bookena med sier, og kom til þeirra.

15. Og þeir sogdu til hans, set þig nidur, og les, so ad vier heyrum þad. Og Baruch las hana fyrer þeirra Eyrum.

16. Og er þeir heyrdu alla þa Rædu, skielfdust þeir vid þad, eirn med odrum, og sogdu til Baruch, vier vilium kunngiora Kongenum alla þessa Rædu.

17. Og þeir spurdu Baruch ad, Seg þu oss, Hvornenn ad þu hefur skrifad alla þessa Rædu, ut af hans Munne.

18. Baruch sagde til þeirra, Hann las alla þessa Rædu fyrer mier med sijnum Munne, og eg skrifade hana med Bleke j Bookena.

19. Þa sogdu Hofdingiarner til Baruch, Gack burt, og geym þig med Jeremia, so ad eingenn vite hvar þid erud.

20. Enn þeir geingu jnn til Kongsins j Forgardenn, og lietu Bookena vera j Herberge Elisama Cantzlerans, og sogdu Kongenum alla þessu Rædu.

21. Þa sende Kongurenn Judi burt, ad sækia Bookena, hann took hana af Herberge Elisama Cantzelerans. Og Judi las hana fyrer Kongenum, og fyrer ollum Hofdingium, sem stodu hia Kongenum.

22. Enn Kongurenn sat j Vetrar-Salnum, fyrer Skorsteinenum, a þeim Niunda Maanude.

23. Enn sem Judi hafde lesed Þriu eda Fiogur Blød, þa skar hann þau j burt med Skrifhnijfe, og kastade þeim a Elldenn, sem var a Elldstoo Skorsteinsins, þangad til ad Bookenn var øll uppbrennd j Ellde.

24. Og ongvum bløskrade, nie j sundurreif sijn Klæde, hvorke Kongurenn, nie hans Þienarar, þo ad þeir heyrdu alla þessa Rædu.

25. Enn þo ad Elnathan, Delaia, og Gemaria, bædu Kongenn, ad hann villde ei brenna Bokena, enn hann hlyddde þeim ecke.

26. Þar til med baud Kongurenn Jerahmeel, Syne Hamalech, og Seraia, Syne Asriel, og Selamia, Syne Abdeel, ad þeir skylldu grijpa Baruch Skrifara, og Jeremiam Propheta, enn DRottinn hafde faled þa.

III. 27. Þa skiede Ord DROTTins til Jeremia, epter þad ed Kongurenn hafde laated brenna Bokena, og þa Ord-Ræduna, sem Baruch hafde skrifad epter Munne Jeremias, og sagde,

28. Tak þier eina adra Book aptur, og skrifa alla þa hina fyrre Ord-Ræduna þar j, sem stod j þeirre hinne fyrre Bookenne, hvoria Joachim, Kongurenn Juda, hefur upp brennt.

29. Og seg so af Joachim, Kongenum Juda, So seger DROTTinn, Þu uppbrennder þa Bokena, og sagder, Hvar fyrer skrifader þu þar jnne, þad Kongurenn af Babylon skyllde koma og fordiarfa þetta Land, og giora þad, so ad þar skyllde hvorke Folk nie Fienadur framar meir jnne vera?

30. Þar fyrer seger DROTTinn af Joachim, Kongenum Juda, Þar skal eingenn ut af hans Sæde epter verda, sem sitia skal uppa Davids Stoole, og hans Lijkame skal liggia utkastadur a Dagenn j Hitanum, og a Nottunne j Kuldanum.

31. Og Eg vil vitia hans heim, og hans Sædis og hans Þienara, fyrer þeirra Misgiorda Saker, og Eg vil laata allskins Ogiæfu koma yfer þa, og yfer Borgar-Mennena j Jerusalem, og yfer þa j Juda, sem Eg hefe sagt þeim, og þeir hlyddu Mier þo ecke.

32. Þa tok Jeremias adra Book, og fieck hana Baruch, Syne Nerias, Skrifaranum, hann skrifade þar j epter Munne Jeremia, alla þa Ord-Ræduna, sem stod j Bookenne, sem Joachim, Kongurenn Juda, hafde j Ellde brenna laated, og umframm þa hina somu, þa var þar enn miklu meire Ræda enn j hinne var.

## XXXVII. Capitule.

Jeremiæ (I) Bæn; (II) Flotte; Og (III) Fangelse.

I. Og Zedechias, Josia Son, vard Kongur j Stadenn Jechania, Joachims Sonar, þviad Nabochodonosor, Konungurenn af Babylon, giorde hann ad Konunge j Landenu Juda.

2. Enn hann og hans Þienarar, og Folked j Landenu, hlyddu ecke Orde DROTTins, þvi sem hann talade fyrer Jeremiam Propheta.

3. Enn þo sende Kongurenn Zedechias, Juchal, Son Selemia, og Sephania, Son Maseia, þann Kiennemann, til Prophetans Jeremia, og liet segia honum, Bid þu DROttinn GUD vorn fyrer oss.

4. Þviad Jeremias gieck nu ut og jnn a medal Folksins, og eingenn sette hann j Fangelse.

5. So var og þad Herlided Pharaonis utfared af Egyptalande, og þeir Chaldei, sem þar laau fyrer Jerusalem, þann Tijd þeir heyrdu soddann Nykte, þa fooru þeir j burt fra Jerusalem.

6. Og Ord DRottins skiede til Jeremiam Propheta, og sagde,

7. So seger DROttinn GUD Jsraels, Seged so til Konungsins Juda, sem sende ydur til Mijn, til ad spyria Mig ad, Sioa þu! Þad Herlided Pharaonis, sem utfared er ad koma

ydur til Hialpar, skal fara heim aptur j Egyptaland.

8. Og þeir Chaldeansku skulu aptur koma, og strijda a moote þessum Stad, og yfervinna hann, og brenna hann upp med Ellde.

9. Þar fyrer seger DROttinn so, Tæled ecke Saaler ydar, þar þier hugsed so, þad þeir Chaldeansku munu j burt fara fra oss, Þeir munu ei j burt fara.

10. Og þo ad þier jhel slægud allt Herlid þeirra Chaldeansku, sem strijda a moote ydur, og nockrer ydrer yrde saarer þar ut af, þa mundu þeir þo taka sig upp, hvor ur sijnu Land-Tialldе, og brenna upp þennann Stad med Ellde.

II. 11. Enn sem þad Herfolk þeirra Chaldeansku var j burt fared fra Jerusalem, vegna Herlids Pharaonis,

12. Gieck Jeremias ut af Jerusalem, og villde ganga j BenJamins Land, til ad hlutskipta þar Arfurlende a medal Folksins.

13. Og þa ed hann kom j BenJamins Port, þa var þar settur einn til Dyravords, sa sem hiet Jeria, Sonur Selemia, Sonar Hanania, hann tok Jeremiam Propheta Hondum, og sagde, Þu villt falla til þeirra Chaldeansku.

14. Jeremias svarade, Þad er ecke satt, eg vil ei falla til þeirra Chaldeansku, Enn Jeria villde ei hlyda honum, helldur greip hann Jeremiam, og leidde hann til Hofdingianna.

III. 15. Og Hofdingiarner reiddust vid Jeremiam, og lietu sloa hann, og kostudu honum j Fangelse, j Huse Jonathans Skrifara, hann settu þeir til ad vera Vord Mirkvastofunnar.

16. So gieck Jeremias j Dyblytzuna, og j Fioturenn, og loa þar langann Tijma.

17. Og Kongurenn Zedechias sende þangad, og liet sækia hann, og spurde hann heimuglega ad j sijnu Huse, og sagde, Er þar nockud eitt Ord af DRottne fyrer Hondum? Jeremias sagde, Ja, Þviad Þu munt giefenn verda j Hendur Kongenum af Babylon.

18. Og Jeremias sagde til Kongsins Zedechia, Hvad hefe eg misgiort a mote þier, og a moote þijnum Þienurum, og a moote þessu Foolke, ad þeir hafa kastad mier j Mirkvastofu?

19. Hvar eru nu ydrer Prophetar, sem spaadu ydur, og sogdu, Kongurenn af Babylon mun ecke koma yfer ydur, nie yfer þetta Land.

20. Og heyr mig nu, minn Herra Kongur! og lat mijna Boon duga fyrer þier, og lat ecke hafa mig j burt aptur j þad Hused Jonathans Skrifara, so ad eg deye þar ecke.

21. Þa baud Kongurenn Zedechias ad þeir skylldu geyma Jeremiam j Forgardenum Mirkvastofunnar, og liet giefa honum hvern Dag ejtt Braud af Bakara-Strætenu, þangad til ad allt Brauded j Stadnum var upp eted, So bleif Jeremias j Forgardenum Mirkvastofunnar.

## XXXVIII. Capitule.

Jeremias er (I) laatenn nidur i Eina diupa Gryfiu; (II) Er tekinn upp aptur þadan; og (III) Rædur Zedechias, ad hann fære vilugur ut til þeirra Chaldæisku.

I. Og er Saphatia, Mathans Son, og Gedalia, Pashurs Son, og Juchal, Selemias Son, og Pashur, Malchia Son, heyrdu þa Rædu sem Jeremias talade til alls Folksins, segiande.

2. So seger DROTTinn, Hvor hann blijfur j þessum Stad sa skal deya fyrer Sverde, Hungre, og Drepsott, Enn hvor hann geingur ut til þeirra Chaldeansku, sa mun Lijfe hallda, og sijnu Lijfe þar j fra biarga, sem odru Herfange.

3. Þviad so seger DROTTinn, Þesse Stadur skal yfergiefenn verda Herlide Kongsins af Babylon, og þeir skulu vinna hann.

4. Þa sogdu Hofdingiarner til Konungsins,

sins, Lꝍattu Lijflꝍata þann Mann, þviad med soddann Hætte þa frasnyr hann Strijds-Folkenu, þvi sem ad enn er nu epter j þessum Stad, Jafnvel eirnenn øllu Folkenu, med þvi, ad hann seger soddann Ord til þeirra. Þviad sa Madur fer eige þess a Leit sem til Fridar heyrer þessu Folke, Helldur hins sem til Ogiæfu þienar.

5. Kongurenn Zedechias sagde, Sioaed, hann er j ydar Hondum, þviad Kongurenn kann eckert a mote ydur.

6. Þa tooku þeir Jeremiam, og kostudu honum j Gryfiu Malchie, Sonar Hamelech, sem var j Forgarde Mirkvastofunnar, og lietu hann ofann syga med Reipum j Gryfiuna, þar sem ecke neitt Vatn var, helldur Leir-Bleyta, og Jeremias sock nidur j Leir-Bleytuna.

II. 7. Enn sem EbedMelech Blꝍalendske, eirn Hyrd-Sveirn j Kongsins Garde, heyrde ad þeir hofdu kastad Jeremia j Gryfiuna, og Kongurenn sat þann sama Tijma j BenJamins Porte,

8. Þa gieck EbedMelech ur Kongsins Huse, og talade til Kongsins, og sagde.

9. Minn Herra Kongur! Þeir Menn hafa jlla giort vid Jeremiam Propheta, ad þeir hafa kastad honum j Gryfiuna, þar ed hann hlytur af Hungre ad deya, þviad hier er ecke neitt meira Braud til j Stadnum.

10. Þa skipade Kongurenn EbedMelech Blꝍamanne, og sagde, Tak Þriatijge Menn med þier af þessum, og drag Jeremiam Propheta upp ur Gryfiunne, adur enn hann deyr.

11. Og EbedMelech tok Mennena med sier, og gieck jnn j Kongsins Hus, þar nidur under sem Fiehyrdslurnar voru, og took þar sundurrifna og utslitna gamla Larfa, og liet þa j einum Streing ofan j Gryfiuna til Jeremia.

12. Og EbedMelech Blꝍamadur sagde til Jeremia, Lꝍat þessa gamla sundurrifna utslitna Larfa under þijna Armlegge kringum Streingenn, og Jeremias giørde so.

13. Og þeir drogu Jeremiam upp ur Gryfiunne, med Togenu, og Jeremias var so j Forgarde Mirkvastofunnar.

III. 14. Og Kongurenn Zedechias sende þangad, og heimte Jeremiam Propheta til sijn, under þann hinn þridia Jnngangenn a Huse DROTTins. Og Kongurenn sagde til Jeremia, Eg vil spyria þig ad nockru, Kiære! dyl þess ecke fyrer mier.

15. Jeremias sagde til Zedechiam, Sege eg þier nockud, þa Lijflætur þu mig, enn giefe eg þier eitt Rꝍad, þa hlyder þu mier ecke.

16. Þa soor Kongurenn Zedechias Jeremia heimuglegana, og sagde, So Sannarlega sem DROttinn lifer, Sa ed hefur giort oss þessa Sꝍalu, þa vil eg ecke Lijflꝍata þig, og eige helldur giefa þig j þeirra Hendur sem sækia epter þijnu Lijfe.

17. Og Jeremias sagde til Zedechiam, So seger DROTTinn Gud Zebaoth, Gud Jsraels, Ef ad þu geingur ut til Hofdingianna Kongsins af Babylon, þa muntu Lijfe hallda, og þesse Stadurenn mun þa ecke upp brenndur verda.

18. Helldur þu og þitt Hus mun þa Lijfe hallda. Enn ef þu geingur ecke ut til Hofdingianna Kongsins af Babylon, þa mun þesse Stadur giefast j Hendur þeirra Chaldeanisku, og þeir munu brenna hann upp med Elldе, og þu munt ecke eirnenn sleppa ur þeirra Hondum.

19. Kongurenn Zedechias svarade til Jeremiam, Eg hrædunst þad eg mune þeim Gydingum ofurselldur verda sem fallner eru til þeirra Chaldeanisku, so ad þeir spotte mig.

20. Jeremias sagde, Eige munu þeir ofurselia þig, Kiære! Hlyd þu Raustenne DROTTins, sem eg sege þier, þa mun þier vel vegna, og þu munt þa Lijfe hallda.

21. Enn ef þu geingur ei ut, þa er þetta

þad Ord sem DROTTinn hefur auglyst mier.

22. Sioa þu, Allar þær Konur sem ad enn nu eru j Huse Kongsins Juda, þær skulu utleidast til Hofdingia Kongsins af Babylon, þær munu þa segia, Avi! Þijner Hugsvalarar hafa yfertalad þig, og þig a Toalar dreiged, og fært þig i Ohreinendenn, og eru snuner aptur a bak.

23. So munu allar þijnar Konur og Born utleidast til þeirra Chaldeanisku, og þu sialfur munt ecke umflued gieta, fra þeirra Hondum, helldur muntu gripenn verda af Kongenum af Babylon, og þesse Stadur mun med Ellde upp brenndur verda.

24. Og Zedechias sagde til Jeremia, Sioa þu til, ad eingenn foae þesse Ord ad vita, þa muntu ecke deya.

25. Og ef Hofdingiarner foa þad ad vita, ad eg hefe talad vid þig, og þeir koma til þijn, og segia, Seigdu hvad þu talader vid Kongenn, Dyl ecke fyrer oss, þa vilium vier ecke aflijfa þig, Og hvad talade Kongurenn vid þig?

26. Þa segdu, Eg bad Kongenn, þad hann villde ecke loata leida mig aptur j Jonathans Hus, eg hlyte þar ad deya.

27. Þa komu aller Hofdingiar til Jeremia, og spurdu hann ad, og hann sagde þeim so sem þad Kongurenn hafde boded honum. Þa forlietu þeir hann, med þvi, ad þeir kunnu ecke neins af honum vijser ad verda.

28. Og Jeremias var j Forgarde Mirkvastofunnar, allt til þess Dags þa Jerusalem var unnenn.

## XXXIX. Capitule.

Jerusalem er (I) Foreydd, epter þvi sem Jeremias hafde fyrer spaad; (II) Hann kemst ur sijnu Fangelse, og (III) seger, ad Ebed-Melech munde frelsa sitt Lijf.

I. Og þad skiede, ad Jerusalem vard unnenn. Þviad a þvi Nijunda Aarenu Zedechia, Konungsins Juda, a þeim Tijunda Moanude, kom Nabochodonosor, Kongurenn af Babylon, og allt hans Herlid, fyrer Jerusalem, og settust um hana.

2. Og a þvi Ellefta Aarenu Zedechia, a þeim Nijunda Deige hins Fiorda Moanadar, þa brutust Menn jnn j Stadenn.

3. Og aller Hofdingiarner Kongsins af Babylon foru þar jnn, og namu Stadar j Midportenu, sem voru, Nergal Sar Ezer, SangarNebo, Sarsechim, hinn ædste Herbergis-Sveirn, NergalSarEzer, Hofmeistarenn, og aller adrer Hofdingiar Kongsins af Babylon.

4. Enn sem Zedechias, Kongurenn Juda, hann soa þa, og hans Strijds-Folk, þa flydu þeir um Nott, ut af Stadnum, j hioa þeim Jurtragardenum Kongsins, ut um þad Ported, à millum tveggia Mura, og fooru ut ad Eydemorkenne.

5. Enn Herlid þeirra Chaldeanisku sookte epter þeim, og goatu griped Zedechiam, a þvi Sliettlendenu hioa Jericho, og fongudu hann, og hofdu hann til Nabochodonosors, Kongsins af Babylon, til Riblath, sem liggur j Landenu Hemath, hann sagde Dom yfer honum.

6. Og Kongurenn af Babylon liet j Hel sloa Bornenn Zedechia fyrer hans Augum, j Riblath, og aflijfade alla Hofdingiana Juda.

7. Enn a Zedechia liet hann stijnga ut Augunn, og binda hann med Vidium, ad hann flytte hann til Babylon.

8. Og þeir Chaldeanisku brenndu upp bæde Kongsins Hus, og þau Husenn Borgar-Mannanna, og nidurbrutu Murveggena Jerusalem.

9. Enn þad sem þar var enn til af Folkenu j Stadnum, og þad annad hvad þar hafde til þeirra flued, þa flutte NebusarAdan Hershofdinge alla samann herteknа til Babylon.

10. Enn af þvi minnehoattar Folkenu, sem ecke neitt oattu til, liet NebusarAdan, Hofuds-Madurenn, j þad sama Sinn nockra

vera epter j Landenu Juda, og gaf þeim Vijngarda og Þorp.

II. 11. Enn Nabochodonosor, Kongurenn af Babylon, hafde boded Nebusar Adan, Høfuds-Mannenum, um Jeremiam, og sagt.

12. Tak þu hann, og lat þijna Vernd yfer honum vera, og gior honum ecke neitt til Vonda, helldur gior vid hann epter þvi sem hann beidest af þier.

13. Pa sende Nebusar Adan, Hofuds-Madur, og NebuSasban, hinn ædste Hird-Sveirn, NergalSarEzer, Hofmeistarenn, og aller Kongsins Høfdingiar, af Babylon,

14. Og lietu sækia Jeremiam, ur Forgarde Mirkvastofunnar, og j Hendur feingu hann Gedalia, Syne Ahikams, Saphans Sonar, ad hann skyllde leida hann ut þadann j sitt Hus, og þad hann skyllde vera hia Folkenu.

III. 15. Ord DROttins var skied og so til Jeremiam, þa Stund ed hann laa enn nu jnnelucktur j ForgardeMirkvastofunnar, og sagde.

16. Gack þu burt, og seg til EbedMelech Blaamannsins, So seger DRottinn Zebaoth, GUd Jsraels, Sioa þu! Eg vil lata mitt Ord koma yfer þennann Stad, til Ogiæfu, og til einskis Gods, og þu skallt sioa þad þann sama Tijma.

17. Enn Eg vil frelsa þig j þann sama Tijma, seger DRottinn, Og þu skallt ecke verda þvi Folke ad Hlutskipte, fyrer hvoriu þu hrædest.

18. Þviad Eg vil hiaalpa þier þar j fra, so ad þu skallt ei falla fyrer Sverde, helldur skalltu þar j fra þijnu Lijfe biargad gieta, lijka sem ødru Hlutskipte, af þvi, ad þu setter Tru til Mijn, seger DRottinn.

## XL. Capitule.

Jeremias (I) kemur, med ødrum, sem epter høfdu ordid, til Gedalia; Sem (II) er varadur vid, ad hann bide ecke Olucku af Jsmael.

I. Þetta er þad Ord, sem skiede af DRottne til Jeremiam, Pa ed Nebusar Adan, Høfuds-Madurenn, liet hann lausann j Rama. Þviad hann var og bundenn med Vidium, a medal allra þeirra sem Hertekner voru til Jerusalem, og j Juda, ad þa skyllde flytia til Babylon.

2. Pa ed Høfuds-Madurenn hafde nu lated kalla Jeremiam fyrer sig, sagde hann til hans, DROTTinn GUd þinn hefur talad þetta hid Vonda yfer þessum Stad.

3. Hann liet þad og eirnenn koma, og giorde sem hann hafde sagt, þviad þier syndgud ust j moote DROttne, og hlyddu ecke hans Raust, þar fyrer er soddann yfer ydur komed.

4. Sioa þu nu! Eg hefe j Dag giort þig lausann af þeim Vidium, sem þijnar Hendur voru med bundnar, Lijkar þier nu ad fara med mier til Babylon, þa kom þu, þu skallt vera mier a Hendur falenn. Enn ef þier lijkar þad ei, ad fara med mier til Babylon, þa lattu þad vera, Sioa þu! Par hefur þu allt Landed fyrer þier, hvar ed þier þyker gott ad vera, og þier þoknast, þangad far þu. Þviad ef þad leingra er j burt fared, þa er ecke Vonneirnar Apturkomu.

5. Par fyrer maattu nu snua aptur til Gedalia, Sonar Ahikam, Saphans Sonar, hvorn ad Kongurenn af Babylon hefur sett yfer Stadena j Juda, og vera so hia honum a medal Folksins, Eda far þangad, sem þier sialfum lijkar best. Og Høfuds-Madurenn gaf honum Tæring og Fiegiafer, og liet hann j burt fara.

6. So kom Jeremias til Gedalia, Ahikams Sonar, til Mizpa, og var hia honum a medal Folksins, þess sem epter var orded j Landenu.

7. Pa ed þeir Hofuds-Menn, sem sig hofdu hallded ut a Landenu, med sijnum Monnum, formerktu þad Kongurenn af Babylon hafde sett Gedaliam, Ahikams Son, yfer Landed, og so bæde yfer Karlmenn, Konur og Born, og þa hinu minnstu-hattar Menn j Landenu, sem ecke voru j burt flutter til Babylon.

8. Pa komu þeir til Gedalia j Mizpa, sem

voru þeir, Ismael, Nethania Son, Jo-
hanan og Jonathan, Kareah Syner, og
Seraia, Thanhumeth Son, og Syner
Ephai af Nethophath, og Jesania, Maacha-
thi Son, med sijnum Monnum.
9. Og Gedalia, Sonur Ahikams, So-
nar Saphans, giørde þeim, og þeirra Mon-
num, eirn Eid, og sagde, Hrædest eige þad, ad
vera þeim Chaldeaniſku undergiefner, blijfed
j Landenu, og vered Kongenum af Babylon
undergiefner, þa mun þad vegna ydur vel.
10. Sioaed! Eg by hier j Mizpa, ad Eg
ſkule þiona þeim Chaldeaniſku, ſem til vor ko-
ma, Þar fyrer innſafned Vijne, og Fijkium,
og Vidſmiore, og laated þad j ydar Kier, og
bued j ydar Stødum, ſem þier hafed feinged.
11. Og aller Gydingar, ſem voru j Lan-
denu Moab, og Ammons Barna, og j E-
dom, og j ollum Londum, þa ed þeir heyrdu
nu þad, ad Kongurenn af Babylon hafde
laated nockra epter vera j Juda, og ſett yfer þa
Gedaliam, Son Ahikam, Sonar Saphans,
12. Þa komu þeir aller aptur j Landed Ju-
da, ur ollum aattum, þadann ſem þeir hofdu
utdrifner vered, til Gedalia, j Mizpa, og ſa-
manſofnudu nærſta miklu Vijne, og Sumars
Avoxtum.
II. 13. Enn Johanan, Kareah Son, med
ollum Hofuds-Monnum, ſem ſier hofdu for-
dad ut a Landenu, komu til Gedalia, j Mipza,
og ſogdu til hans.
14. Veitſtu nockud, þad Baelis, Kongurenn
Ammons Barna, hefur ſendt hingad Iſmael,
Nethania Son, ad hann ſkyllde ſlaa þig jhel?
Enn Gedalia, Ahikams Son, villde þvi ecke
trua.
15. Þa ſagde Johanan, Kareah Son, til
Gedalia, heimuglegana, j Mizpa, Kiære!
Eg vil fara j burt, og jhel ſlaa Iſmael, Ne-
thania Son, ſo ad eingenn ſkal þad faa ad vita.
Hvar fyrer ſkal hann ſlaa þig jhel, ſo ad aller
Gydingar, ſem til þijn eru ſafnader, ſkulu j
ſundur dreifder verda, og ad þeir ſem epter eru
ordner af Juda ſkulu ſo fyrerfaraſt?
16. Enn Gedalia, Ahikams Son, ſagde
til Johanan, Kareah Sonar, Ecke ſkalltu þad
giora, þad er ecke ſatt, ſem þu ſeger af Iſmael.

## XLI. Capitule.

Gedalia (I) er ſleginn jhel af Iſmael, hver ed (II) drepur marga Menn i Mizpa; En (III) hlytur þo ad flya fyrer Johanan.

I. Enn a þeim Siaunda Maanude kom
Iſmael, Nethania Son, Eliſama
Sonar, ut af Konunglegu Slekte, med
Yferherrum Kongſins, og Tiju Menn medur
honum, til Gedaliam, Ahikams Sonar, til
Mizpa, og þeir neyttu þar Matar j Mizpa,
hvor med odrum.
2. Og Iſmael, Nethania Son, bioo ſig
til med þa Tiju Menn, ſem honum filgdu, og
ſloou Gedaliam, Ahikams Son, Saphans
Sonar, med Sverde til Dauds, fyrer þad
ad Kongurenn af Babylon hafde ſett hann yfer
Landed.
3. Þar med ſloo Iſmael alla þa Gydin-
ga, ſem voru hiaa Gedalia, j Mizpa, og ſo
þa Chaldeanſku, ſem þeir fundu þar, og alla
Strijds-Menn.
II. 4. Annars Dags epter þad Gédalia
var ſleigenn, og þad viſſe enn eingenn,
5. Komu Attatiju Menn af Sichem, af
Silo, og af Samaria, og hofdu ſijn Skiegg
afrokud, og j ſundur rifed ſijn Klæde, og
kloorad ſig, og baaru med ſier Matar-Offur
og Reykelſe, til ad færa þad j Hus DROT-
Tins.
6. Og Iſmael, Nethania Son, gieck ut a
moote þeim af Mizpa, gieck framm og griet.
Þa ed hann kom nu ad þeim, ſagde hann til
þeirra, þier ſkulud koma til Gedalia, Ahi-
kam Sonar.
7. Enn ſem þeir komu midt j Stadenn,
ſloo Iſmael, Nethania Son þa jhel, og
þeir Menn, ſem hiaa honum voru vid Brun-
nenn.
8 Enn þar voru Tiju Menn a medal þeir-
ra,

ra, sem sogdu til Ismaels. Kiære! Slaa þu oss ecke jhel, Vier hofum foolged Fie, liggiande j Akrenum, af Hveite, Bygge, Vidsmiore, og Hunange, Þa hætte hann af þvi, og afliifade þa ecke med hinum odrum.

9. Enn sa Brunnurenn, j hvorn þad Ismael kastade þeim Daudu Liikomonum, sem hann hafde jhel sleged med Gedalia, þaer sa hinn same, sem Kongurenn Assa liet giora, j moot Baesa, Israels Konge, þann uppfyllte nu Ismael, Nethania Son, med þa jhelslegnu.

10. Og þad Folked sem umframm var j Mizpa, eirnenn Kongsins Dotter, þad flutte Ismael, Nethania Son, herteked j burt, med ollu þvi Folke, sem epter var j Mizpa, yfer hvert Nebusar Adan, Hofuds-Madurenn, hafde sett Gedaliam, Ahikams Son, og for j burt, og villde yfer um til Ammons Barna.

III. 11. Enn þa ed Johanan, Kareah Son, og aller Hershofdingiarner, sem hiaa honum voru, spurdu oll þau Illsku-Verk sem Ismael, Nethania Son, hafde giort.

12. Toku þeir til siin alla Menn, og foru ut j moote Ismael, Nethania Syne, til Bardaga, og naadu honum vid þad mikla Vatned hiaa Gibeon.

13. Enn þa Folked, þad sem var hiaa Ismael, saa nu Johanan, Kareah Son, og alla Hershofdingiana, sem hiaa honum voru, urdu þeir glader vid.

14. Og allt þad Folked, sem Ismael hafde j burt flutt fra Mizpa, snere sier vid, og hvarf aptur til Johanan, Kareah Sonar.

15. Enn Ismael, Nethania Son, flyde undann Johanan, vid aattunda Mann, og foor til Ammons Barna.

16. Og Johanan, Kareah Son, med ollum Hershofdingiunum, sem hiaa honum voru, tooku allt þad Folked, sem epter var orded (þad sem þeir hofdu fært aptur fra Ismael, Nethania Syne) af Mizpa, til siin, af þvi þad Gedalia, Ahikams Son, var jhel sleigenn, sem voru Striids-Menn, Konur og Born, og Hyrd-Sveinar af Gibeon, sem þeir hofdu aptur flutt.

17. Og fooru af stad, og sneru jnn til Kimham, til Herbergis, sem bioo hiaa Bethlehem, og villdu fara til Egypta-Lands, fyrer saker þeirra Chaldeanska.

18. Þviad þeir voru hrædder vid þa, af þvi þad Ismael, Nethania Son, hafde jhel slegid Gedaliam, Ahikams Son, hvorn ad Kongurenn af Babylon hafde sett yfer Landed.

# XLII. Capitule.

*Jeremia rædur Johanan ad vera kirrum i Juda Lande, og fara ecke til Egyptalands.*

Þa geingu aller Hofdingiarner Hersins, Johanan, Kareah Son, og Jesania, Hosaia Son, med ollu Folke, bæde Smaaum og Storum,

2. Og sogdu til Jeremiam Propheta, Kiære! Laat vora Bæn gillda fyrer þier, og bid til DROTTins, Guds þijns, fyrer oss, vegna allra þessara, sem epter eru ordner (Þviad vier erum, þvi verr, faaer epter ordner af morgum, so sem þad sioalfur þu sier oss med þijnum Augum.)

3. So þad DROTTinn GUD þinn villde kunngiora oss, hvort vier ættum ad fara, og hvad vier skulum til giora.

4. Og Jeremias Prophete sagde til þeirra, Nu vel, Eg vil hlyda, og sioaed! Eg vil bidia DROttinn GUd ydarn, sem þier sogdud, og eg vil kunngiora ydur allt þad, hvad DROTTinn svarar ydur, og eg vil ecke dylia neitt fyrer ydur.

5. Og þeir sogdu til Jeremia, DRottinn hann sie þess eirn Trulegur og Sannarlegur Vottur, a millum vor, ef ad vier giorum ecke allt hvad DROTTinn Gud þinn befalar þier til vor,

6. Hvort þad er helldur Gott eda Illt, þa vilium vier hlyda Raustenne DRottins Guds Vors, til hvørs vier sendum þig, so ad

ad þad meige vegna oss vel, ef vier hlydum Raustenne DROTTins, Vors Guds.

7. Og Tiju Dogum þar epter skiede Ord DROTTins til Jeremiam.

8. Pa kallade hann Johanan, Kareah Son, og alla Hofuds-Menn Hersins, sem hiaa hönum voru, og allt Folked bæde Smaa og Stora.

9. Og sagde til þeirra, So seger DRottinn Gud Israels, til hvors ed þier sendud mig, ad eg skyllde flytia ydar Bæner fyrer hann.

10. Ef ad þier blijfed j þessu Lande, þa vil Eg upp byggia ydur, enn ecke nidur briota, Eg vil grooursetia ydur, enn ecke uppræta, Þvi þad hid Vonda, sem Eg hefe giort ydur, þad angrar Mig nu alla reidu.

11. Þier skulud ecke hræddet vera um ydur, fyrer Kongenum af Babylon, hvorn þier ottest, seger DROTTinn, ecke skulud þier hrædast hann, þviad Eg vil vera hiaa ydur, ad hiaalpa og frelsa ydur af hans Hende.

12. Eg vil audsyna ydur Miskunseme, og vera ydur Liknsamur, og jnnflytia ydur j ydart Land aptur.

13. Enn ef þier seged, Vier vilium ecke vera j þessu Lande, hvar med þier vilied ecke hlyda Raustenne DROttins Guds ydars.

14. Helldur seged, Nei, vier vilium fara j Egyptaland, so ad vier skulum ongvann Bardaga siaa, nie heyra Basununnar Hliood, og ei helldur Hungur lida Brauds vegna, þar vilium vier vera.

15. Nu, so heyred Ord DROTTins, þier sem epter erud ordner af Juda, so seger DROTTinn Zebaoth, Gud Israels, Þar ed þier setied ydra Asionu til ad fara j Egyptaland, so ad þier vilied þar vera.

16. Pa skal þad Sverd, fyrer hvoriu þier hræddet erud, hæfa ydur j Egyptalande, og þad Hungred, fyrer hvoriu þier kvijded, skal alla Tijma vera kringum ydur j Egyptalande, og þar skulud þier deya.

17. Þeir sieu hvorier ed vilia sem setia sijna Asionu ad fara j Egyptaland, til ad vera þar, þeir skulu deya fyrer Sverde, Hungre, og Drepsott, og þar skal eingenn epter verda, nie hid Vonda umflued gieta, sem Eg vil laata koma yfer þa.

18. Þviad so seger DROTTinn Zebaoth, Gud Israels, Lijka sem Mijn Reide og Grimmd er geingenn yfer Jerusalems Innbyggiara, so skal hun og eirnenn ganga yfer ydur, ef ad þier fared i Egyptaland, so ad þier skulud vera til Bolvunar, til Forundrunar, til Blots og Forsmaanar, og þier skulud ecke siaa þennann Stad framarmeir.

19. Þad Ord DROTTins kiemur ydur til, þier sem epter erud ordner af Juda! ad þier skulud ecke fara j Egyptaland. Þar fyrer þa vited, ad Eg vitna fyrer ydur j Dag,

þad þier draged a Taalar ydar Saaler.

20. Þviad þier sendud mig til DRottins, Guds ydars, og sogdud, Bid þu DRottinn Gud Vorn fyrer oss, og kunngior oss allt hvad DROTTinn Vor hann seger, so vilium vier og giora þar epter.

21. Pad hef Eg nu laated ydur faa ad vita j Dag, Enn þier vilied ecke hlyda Raustenne DROTTins, Guds ydars, og ei ollu þvi sem hann bijfalade mier til ydar.

22. So skulud þier nu þad vita, ad þier hlioted ad deya fyrer Sverde, Hungre, og Drepsott, j þeim Stodum til hvorra þier þeinked ydur nu ad fara, so ad þier vilied þar bua.

## XLIII. Capitule.

Johanan (I) fer til Egyptalands; (II) Enn Kongurinn af Babylon atte Eiunig þangad ad koma.

1. Pa ed Jeremias hafde uttalad oll Ord DROTTins Guds þeirra, til alls Folksins, so sem DROTTinn Gud þeirra hafde bifalad hönum oll þesse Ord til þeirra,

2. Sagde Asaria, Hosaia Son, og Johanan, Kareah Son, og aller Drambsamer

Menn, til Jeremia, Þu lygur, DROttinn Gud Vor hefur ei sendt þig til vor, eige helldur þad sagt, þier skulud ecke fara j Egyptaland, til ad bua þar.

3. Helldur hefur Baruch, Neria Son, eggiad þig a þetta, j mote oss, so ad vier skylldum giefast j Hendur þeirra Chaldeanisku, ad þeir feinge Lijflaated oss, og j burt flutt til Babylon.

4. So hlyöde nu Johanan, Kareah Son, og aller Hofdingiar Hersins, asamt med ollu Folkenu, ei Raustenne DROTTins, ad þeir være j Landenu Juda.

5. Helldur tooku Johanan, Kareah Son, og aller Hofdingiarner Hersins, ad sier alla þa sem epter voru af Juda, og allt þad Folked sem aptur var komed, til ad bua j Landenu Juda, j fra allshvattudum Þiodum, þangad sem þeir hofdu flued.

6. Sem ad voru, Menn, Kvinnur og Born, þar til Kongsins Dotter, og allar þær Saaler, sem Nebusar Adan, Hofuds-Madurenn, hafde epter laated, hia Gedalia, Syne Ahikam, Sonar Saphans, og eirnenn lijka Jeremiam Propheta, og Baruch, Neria Son.

7. Og foru j Egyptaland, þviad þeir villdu ecke hlyda Raustenne DROTTins, og komu til Thachpanhes.

II. 8. Og Ord DROTTins skiede til Jeremia, j Thachpanhes, og sagde,

9. Tak stora Steina, og byrg þa j Tigul-Ofnenum, sem er fyrer Port-Dyrunum a Huse Pharaonis, j Thachpanhes, so ad þeir Menn af Juda siae þad.

10. Og segdu til þeirra, So seger DROttinn Zebaoth, Gud Jsraels, Sia þu, Eg vil senda hiedann, og laata sækia minn Þion Nabochodonosor, Kongenn af Babylon, og Eg vil setia hans Stool ofan a þessum Steinum, hvoria Eg byrgde hier.

11. Og hann skal setia sitt Landtialld þar uppyfer. Og hann skal koma og slaa Egyptaland, og drepa hvorn sem þad hitter uppa, og burtflytia þann Hertekenn sem þad hitter uppa, þann med Sverde drepa sem þad aahitter.

12. Og Eg vil upptendra med Ellde Husenn Skurgodanna j Egyptalande, so ad hann skal uppbrenna þau, og j burt flytia. Og hann skal jklæda sig Egyptalande, lijka sem eirn Hyrder jklæder sig sijnu Fate, og ferdast burt þadann med Fride.

13. Hann skal j sundur briota þa Lijkneskiu Stolpana j BethSemes, j Egyptalande, og uppbrenna med Ellde Skurgoda-Hosenn Egyptalands.

## XLIV. Capitule.

Jeremias (I) Rædur Gydingunum i Egyptalande fra Afguda-Dijrdkan; enn þeir (II) villdu ecke hlijda honum. (III) Hversvegna Jeremias seger þeim fyrer, ad DRottenn munde straffa þa.

I. Þetta er þad Ord sem skiede til Jeremiam, til allra þeirra Gydinganna sem biuggu j Egyptalande, sem var j Migdal, j Thachpanhes, j Noph, og j Landenu Pathros, og sagde.

2. So seger DROTTinn Zebaoth, Gud Jsraels, Þier saaud allt þad hid Vonda, sem Eg liet koma yfer Jerusalem, og yfer alla Stadena Juda, og sia, ad þeir eru j Eyde enn þennann Dag, og þar byr eingenn jnne.

3. Og þad sama fyrer þeirra Jllsku saker sem þeir fromdu, ad þeir reittu mig til Reide, og geingu j burt, og gaafu Reykelse, og þionudu annarlegum Gudum, hvoria hvorke þeir, nie þier, nie ydrer Forfedur þecktu.

4. Og Eg sende (a) Aetijd til ydar alla mijna Þienara, Prophetana, og liet segia ydur, Giored ei soddann Svijvirdingar, hvoriar Eg hata.

(a) Snemma.

5. Enn þeir hlyddu ecke, þeir hneigdu ecke helldur sijn Eyru, ad þeir sneru sier j burt fra sijnum Vondskap, ad þeir giordu ecke Reykelse annarlegum Gudum.

6. Þar

6. Þar fyrer upphosst mijn Reide og Grimmd, og brann yfer Stødunum Juda, og yfer Strætunum j Jerusalem, so ad þau urdu ad Eydemørku og Obyggdum, so sem þad stendur j Dag.

7. Nu, so seger DROTTinn, Gud Zebaoth, Gud Jsraels, Þvi giøred þier so mikla Illsku a mote ydru sialfs eigenn Lijfe? fyrer hvoria þad upp skulu rætast, a medal ydar, bæde Karlmenn og Konur, bæde Børn og Briostmylkingar af Juda, og eckert af ydur epter verda.

8. Af þvi þier reited mig so til Reide, med ydar Handaverkum, og giøred Reykelse fyrer annarlegum Gudum j Egyptalande, þangad sem þier erud jnnfarner til Herbergis so ad þier yrdud upprætter, og verded til Bølvanar, og til Forsmaanar, a medal allra Heidingia a Jordu.

9. Hafed þier forgleymt Ogiæfunne ydvarra Forfedra, Oluckunne Konungsins Juda, þvi Luckuleysenu þeirra Eigenn-Kvenna, þar til med ydvarre eigenn Ogiæfu, og Ohamingiu ydvara Eigenn-Kvenna, sem yfer ydur hefur komed a Gydinga Lande, og a þeim Strætunum til Jerusalem.

10. Og þo audmykia þeir sig ecke allt til þessa Dags, og ugga ei um sig, og ganga ecke j mijnu Løgmaale og Riettindum, sem Eg gaf ydur og ydar Forfedrum.

11. Þar fyrer seger DROTTinn Zebaoth, Gud Jsraels so, Sia þu, Eg vil setia mitt Auglit a mote ydur til Ogiæfu, og allt Juda skal upprætast.

12. Og Eg vil taka þa sem epter eru vordner af Juda, þeir ed sijnn Andlite hafa snued til ad fara j Egyptaland, til ad taka sier þar Herberge, þad skal soa eirn Enda med alla þa j Egyptalande, þeir skulu falla fyrer Sverde, og fyrerfarast af Hungre, bæde Smaaer og Storer, þeir skulu deya fyrer Sverde og Hungre, og þeir skulu ad Særingum, Undrun, Bølvan, og ad Forsmaan verda.

13. Eg vil eirnenn vitia þeirra Jnnbyggiaranna j Egyptalande medur Sverde, Hungre og Drepsott, lijka so sem þad Eg hefe giort til Jerusalem.

14. So þad eingenn, af þeim sem epter eru vordner af Juda, skal undann komast eda epter vera. Þeir ed þo eru fyrer þann skulld hingad komner j Egyptaland, ad herbergia hier, so ad þeir mætttu aptur komast til Gydinga Lands, hvørt ed þeir villdu giarnann eiga aptur ad koma, og bua þar, Enn eingenn af þeim skal þangad aptur koma, utan þeir sem hiedann flya.

II. 15. Þa svorudu aller Menn Jeremia, þeir sem vissu vel, ad þeirra Hus-Freyur giørdu Reykelse annarlegum Gudum, og allar þær Konur sem þar stoodu j miklum Hoop, med ollu Folke, þvi sem bioo j Egyptalande, og j Pathros, og søgdu.

16. Vier vilium ecke hlyda þier, epter þeim Ordum sem þu talar til vor, j Nafne DROTTins.

17. Helldur vilium vier giøra epter ollum þeim Ordum, sem ut ganga af vorum Munne, og vier vilium Reykelse giøra Himensins (a) Melecheth, og offra henne Dryckiar-Offre, so sem vier og vorer Forfedur, vorer Kongar, og Hofdingiar hafa giort, j Stødunum Juda, og a Strætunum til Jerusalem, Þa høfdum vier og eirnenn noglegt Braud, og þa gieck oss vel, og saaum ongva Ogiæfu.

(a) (Melecheth) Utlegst Verkan, Himensins Verkan er, ad hann giefur Regn, Døgg, Snioo, Frost, Js, Kulda, Hita, Lios, Birtu, og in Summa, allra handa Vedraattu, so ad Melecheth maa vel heita Himensins Vedur, edur Vedraatta. Gydingar hafa hallded þessa Guds-Þionustugiørd vegna goods Vedraattufars (so sem Textenn seger, ad þeir hafe haft nægelegt Braud) uppa þad, ad Avøxturinn mætte rijkuglega vaxa, vegna goodrar Vedraattu, og allt framm koma j riettann Tijma, Ofstiendt af Reidarslogum, Hagle og Ellingum, og annare O-Vedraattu, Soddan Melechets Tegund er og so hiaa oss S. Urban, hann aa ad giefa goda Vedraattu til Jardar Grooدans, Og S. Alexius aa ad hiaalpa a moot Reidar-Þrumum, Ellingum, og ødru soddan fleyra.

18. Enn upp fra þvi ad vier lietum af ad giora Reykelse Himensins Melecheth, og ad offra Dryckiar-Offre, þa hofum vier lided Brest a ollum Hlutum, og hofum glatast fyrer Sverde og Hungre.

19. Og so lijka, þa ed vier giordum Himensins Melecheth Reykelse, og offrudum Dryckiar-Offre, þa giordum vier þad ecke utann med Vilia vorra Husbænda, ad vier bokudum heñe Braud-Kokur, og offrudum heñe Dryckiar-Offre, henne til Umhyggiu.

III. 20. Pa sagde Jeremias til alls Folksins, bæde Karlmanna og Kvenna, og alls Lydsins, sem so hafde svarad honum.

21. Jaa, Eg meina og eirnenn, þad DRottinn hafe minnst a þa Reykelses-giordena, sem þier hafed framed j Stodunum Juda, og a Strætunum til Jerusalem, med ydar Forfedrum, Konungum, Hofdingium, og ollu Folkenu Landsins, og ad hann hafe fest þad j sijnu Hiarta.

22. So ad hann kunne ecke leingur ad lijda ydar vondslega Breytne og Svijvirdingar, sem þier giordud, hvar fyrer ydart Land er so j Eyde lagt, orded ad Foruudran og Bolvan, so ad eingenn byr þar jnne, so sem þad stendur enn þennann Dag.

23. Fyrer þad, ad þier giordud Reykelsed, og syndgudust a moote DROTTne, og hlyddud ecke Raustenne DROttins, og villdud ecke ganga j hans Logmaale, Riettindum og Vitnisburdum, þar fyrer þa hefur ydur skied soddann Ogiæfa, so sem þad stendur þennann Dag.

24. Og Jeremias sagde til alls Folksins, og til allra Kvennanna, Heyred Ord DRottins þier aller af Juda! sem erud j Egypta-Lande.

25. So seger DROTTinn Zebaoth, GUD Israels. Þier, og ydar Husfreyur, hafed talad þad med ydar Munne, og fullkomnad þad med ydar Hondum, sem þier sogdud, Vier vilium hallda vora Lofan, sem vier hofum heited Himensins Melecheth, ad giora henne Reykelse, og offra henne Dryckiar-Offre. Nu vel! Þier hafed endt ydra Lofan, og halldeд ydart Heit.

26. So heyred nu Ord DROTTins, þier aller af Juda, sem bued j Egyptalande, Sioaed! Eg sver vid Mitt hid Mikla Nafn, seger DRottinn, Pad Mitt Nafn skal ecke meir nefnast af nockurs Manns Munne ut af Juda, j ollu Egyptalande, sem þad seger, (So Sannarlega, sem þad DROTTinn hann lifer.)

27. Sioa þu! Eg vil vaka yfer þeim til Ogiæfu, og til einskis Gods, so ad hvor sem er j Egyptalande, ut af Juda, sa skal tortijnast fyrer Sverde og Hungre, allt þar til ad þad hefur feinged eirn Enda med þeim.

28. Enn þeir sem umflued gieta fyrer Sverdenu, þeir skulu þo aptur koma j Landed Juda, af Egyptalande, med eirn lijtenn Flock (Manna,) Og aller þeir adrer af Juda, sem jnn eru farner j Egyptaland, til ad liggia þar til Herbergis, skulu þa formerkia, hvors Ord Sannare eru ordenn, Mijn eda þeirra.

29. Og til Merkis, seger DROTTinn, þad Eg vil vitia ydar j þessum Stad, so ad þier skulud vita ad Mitt Ord skal Sannarlegt verda yfer ydur til Olucku,

30. Pa seger DROttinn so, Sioa þu! Eg vil giefa Pharaonem Haphra, Kongenn af Egyptalande, j hans Ovina Hendur, og þeirra sem leita epter hans Lijfe, Lijka so sem Eg gaf Zedechiam, Kongenn Juda, j hans Ovina Hendur, Nobochodonosor, Kongsins af Babylon, og j þeirra Hendur sem stoodu epter hans Lijfe.

## XLV. Capitule.

Jeremias bodar Baruch af Guds Haalfu, ad hann munde komast Lijfs af.

Petta er þad Ord sem Jeremias Prophete talade til Baruch, Neria Sonar, þa er hañ skrifade þesse Ord j eina Book, af Munne Jeremiæ, a þvi Fiorda Aarenu Joachims, Josia Sonar, Konungsins Juda, og sagde,

2. So

2. So seger DROttinn Zebaoth, GUd Israels, um þig Baruch.

3. Þu seger, Vei mier! Hvornenn hefur DRottinn lagt mier til Sorg, ofann a Sorg, Eg styn mig moodann, og finn ongva Hvijld.

4. Seg þu honum so, So seger DRottinn, sioa þu! Eg nidurbryt þad sem Eg uppbigg-de, og þad sem Eg hefe groodursett, þad upp-ræte Eg, asamt med ollu þessu Mijnu eigenn Lande.

5. Og þu gyrnest mikla Hlute, Gyrnst þad ecke, Þviad sioa þu! Eg vil koma laata Ogiæfu yfer allt Holld, seger DROttinn, Enn Eg vil giefa þier þijna Saalu ad Hlut-skipte, hvort sem þu fer.

## XLVI. Capitule.

Jeremias (I) talar um Egyptalands Eydelegging fyrer Kon: af Babylon; Og (II) lofar þeim Hertek-nu i Babylon Frelse.

I. Þetta er þad Ord DROTTins, sem skiede til Jeremia Spaamanns, a moote ollum Heidingium.

### A moote Egyptalande.

2. A moote Herlide Pharao Necho, Kong-sins af Egyptalande, sem laa vid Vatned Phrath, j Charchemis, hvort ed Nabochodo-nosor, Kongurenn af Babylon, sloo, a þvi Fiorda Aarenu Joachims, Josia Sonar, Konungsins j Juda.

3. Bued til Skiollduna, og Buklarana, og, fared j Strijd.

4. Spenned fyrer Hestana, og laated Riddarana þar uppa sitia, Setied upp Hialmana, og hvessed Gladielenn, og fared j Pan-sarana.

5. Enn hvornenn kiemur þad til, ad Eg sie þeir eru Duglauser, og flya undann, og þeirra Kiempur eru jhel slegnar? Þeir flya undann, so ad þeir lyta ei aptur, og Skielfingenn er j kringum þa, seger DROTTinn.

6. Sa hinn Skioote kann ecke j burt ad flya, og ei helldur hinn Ofluge undann ad komast, þeir eru fallner og nidur slegner j moot Nor-drenu, hioa Vatnenu Phrath.

7. Hvor er nu sa sem for upp hingad, sem eitt Vatnsflood, og hvors Bylgiur sig upp-hoofu, sem adrar Vatns-Bylgiur?

8. Egyptaland foor upp hingad, sem eiru Vatns-Straumur, og þeirra Bylgiur hoo-fu sig so sem Vatns-Bylgiur, og sagde, Eg vil fara upp þangad, til ad hylia Landed, og til ad fordiarfa þa Stadena, med þeim sem þar jnne bua.

9. Nu vel! Stijged a Hestana, hleyped med Vagnana, Laated Hetiurnar ut fara, Bloamennena, og þa ut af Put, sem Skioll-duna hafa, og Bog-Skytturnar af Lydia.

10. Þviad þetta er Dagur DROTTins DROTTins Zebaoth, eirn Hefndar-Da-gur, þad hann vill hefna sijn a sijnum Ovi-num, so ad Sverded skal upp eta þa, og ver-da fullt, og drucked af þeirra Bloode. Þvi-ad þeir hliota ad verda DROttne Zebaoth eitt Slaatrunar-Offur, j þvi Landenu moot Nordrenu, vid Vatned Phrath.

11. Þu Jungfru Egyptalands Dotter! Gack hiedann upp til Gilead, og sæk þier Smyrsl, Enn þad kiemur til einskis, ad þu fa-rer med miklar Lækningar, þu verdur ecke Heilbrigd ad helldur.

12. Skomm þijn er auglios ordenn a me-dal Heidenna Þioda, af þijnum Greate er Landed fullt, þviad ein Hetiann fellur yfer adra, og liggia so baader nidre hvor med odrum.

13. Þetta er þad Ord DROTTins sem hann talade til Jeremiam Propheta, þa ed Nabuchodonosor, Kongurenn af Babylon, ferdadest ut til ad sloa Egyptaland.

14. Kunngiored þad j Egyptalande, og undervijsed þad j Migdal, Laated þa j Noph og Tachpanhes foa þad ad vita, og seged, Bu þig til Varnar, þviad Sverded mun uppeta allt þad hvad j kringum þig er.

15. Hvornenn geingur þad til, þad þijner Volldugu falla til Jardar, og gieta ecke vid staded?

stadeð? DROTTinn kastar þeim so niður.

16. Hann giorer það, að so marger falla af yður, so að eirn liggur þar niðre með oðrum. Pa sogðu þeir, Upp! og laatum oss ferðast til vorra Manna, j vort Foðurland, fyrer Sverðenu þess Tyrannans.

17. Pa var kallað epter þeim, það Pharao, Kongurenn af Egyptalande, liggur Fallenn, hann hefur mißt sijn Lands-Tiolld.

18. So Sannarlega sem Eg life, seger Sa Konungurenn, sem heiter DROTTinn Zebaoth, hann skal ferðast hier framm, so hvar sem Fialled Thabor er a meðal annara Fialla, og so sem Carmel, það sem við Sioenn stendur.

19. Pu Dotturenn sem byr j Egypta-Lande! Tak þijn Ferða-Tye, þviað Noph mun j Eyde logð og Uppbrennd verða, so að eingenn mun bua þar jnne.

20. Egypta-Land er eirn miog værn Kalfur, enn Slaatrunar-Madurenn kiemur af Norðrenu.

21. Og þeir (a) Daglaunararner, sem þar jnne bua, eru eirnenn sem feiter Kaalfar, Enn þo hliota þeir að snua sier, Flya hvor með oðrum, og faa ecke við staðest, Pviað Dagurenn þeirra Olucku mun yfer þa koma, sem er þeirra Vitiunar Tijme.

(a) (Daglaunararner) Hofðingiar og Herrar, sem honum þiona, og stoor Laun taka.

22. Peir bruna þar framm, so glamrar j þeirra Harneskiu, og koma með Hers Krapt, og flytia Axer yfer hana, lijka sem Skogar-Hoggs-Menn.

23. Peir hiner somu munu so hoggva j hennar Skoge, (seger DRottinn) að það mun ecke teliande vera, Pviað þeir eru fleyre enn þær Eingesprettur, sem eingenn fær taleð.

24. Dotturenn Egypta-Lands stendur með Skomm, þviað hun er giefenn j Hendur þess Folksins af Norðrenu.

25. DROTTinn Zebaoth, Gud Israels, hann seger, Sioa þu! Eg vil vitia þeirra (b) Stiornaranna af No, og Pharao, og þeirra j Egypta-Lande með sijnum Guðum og Konungum. Ja, Pharao með ollum þeim sem Traust hofðu a honum.

(b) (Stiornaranna) Ebr. Amon kallast einn Stiornare, eirn Meistare, það er, sa sem Stiornar ollum Hlutum, og Skickar, fyrer hvorn Folkeð verður forsorgað og verndað. Prov. 8. Cap. Eg Sannleikurenn var Amon, Það er, Meistare, eður Forsorgare, sem olln Meistaralega niður skickade og stiornade.

26. Að Eg giefe þa j þeirra Hendur, sem stunda epter þeirra Lijfe, og j Hendur Nabuchodonosors, Konungsins af Babylon, og hans Pienara. Og þar epter a skalltu byggð vera, so sem forðum Daga, seger DROTTinn.

II. 27. Enn þu Minn Pienare Jacob! oottast ecke, og Pu Israel! vert Ohræddur. Pviað, Sioa þu! Eg vil hiaalpa þier af því fiarlæga Landenu, og þijnu Sæde burt ur þijnu Herleidingar Lande. So að Jacob skal aptur koma, og j Friðe vera, og gnooglegt hafa, og eingenn skal skielfa hann.

28. Par fyrer ottast ecke, Minn Pion Jacob! seger DROTTinn, þviað Eg er hia þier. Við alla þa Heidingia, til hvorra Eg hefe j burt rekeð þig, vil Eg eirn Enda giora, enn við þig vil Eg ecke neirn Enda giora, helldur þa vil Eg aga þig með Maata, so Eg laate þig þo ecke ohegndann.

## XLVII. Capitule.

Jeremias spaaer þeim Philisteum, að hiner Babyloniſku mune Heria a þa.

Petta er það Orð DROTTins, sem skiede til Prophetans Jeremia, a mote Philisteis, aadur enn það Pharao sloo Gaza.

2. So seger DROTTinn, Sioa þu, Par kiemur Vatn upp af Norðrenu, sem giora skal eitt Flood, það sem j burt taka skal bæde Landeð, og allt það sem þar er jnne, bæde Staðena, og þa sem j þeim bua.

3. So að Folkeð mun hroopa, og aller Innbyggiarar j Landenu ylbra, fyrer þeim Gny þeirra Sterkra Hesta sem þar framm bruna, og fyrer Bulldran þeirra Vagna, og

Ohliodum Hiolanna, so þad Fedurner skulu ecke lyta um kring sig epter Børnunum, so hrædder skulu þeir verda.

4. Fyrer þeim Deigenum sem kiemur, til ad foreyda øllum Philisteis, og ad uppræta Tyrum og Zidon, med þeim ødrum, þeirra Hiaalpar-Mønnum. Þviad DROTTinn mun nidur briota þa Philisteos sem epter eru, ordner af þeim j Eyunum Capthor.

5. Gaza skal skollott verda, og Ascalon fordiorfud, med þeim sem epter eru ordner j þeirra Dølum.

6. O þu Sverd DROTTins! Hvørsu leinge þa (a) hriisur þu? Nær villtu þa linna? Far þu j þijnar Slijdrer, og hvijl þig, og vert kirrt,

(a) (Hriisur þu) Fyrer Sorg þeirre sem þeir hafa, þeir hrijsa sig yfer Daudu Lijke, Hvad Moses fyrerbaud, Deut. 14.

7. Enn hvørnenn kanntu af ad laata, med þvi ad DROTTinn hefur giefed þier Bijfalning a mote Ascalon, og sett þig a mote þeim Hofnunum Siaafar-Hafsins.

## XLVIII. Capitule.

Jeremias Ognar og Hotar Moabitum med Eydelegging, hver þeim se buenn af þeim Chaldæisku.

Amoote Moab seger DROTTinn Zebaoth, Gud Israels, so, Vei þeim Stadnum Nebo, þviad hann er j Eyde lagdur, og liggur aumlega! Kiriathaim er unnenn, sa Kastalenn stendur aumlegana, og er nidur rifenn.

2. Trassed Moabs er ute, sem hann hafde a Hesbon, þviad þar hugsast Vondt a møte hønum, Sem er, Komed! Vier vilium afmaa þa, so ad þeir skulu ei vera neitt Folk framarmeir, Og þu Madmen skallt eirnenn fordiorfud verda, Sverded skal koma a Bak vid þig!

3. Menn heyra eitt Hoareyste til Horonaim, af Foreydslunne og mikellre Eymd.

4. Moab er sundurbrotenn, þeir heyra hans Ungmenne kalla hatt.

5. Þviad þeir ganga grœatande a Veigenum upp til Luhit, og Ovinerner heyra eitt aumlegt Hroop, a Veigenum nidur fra Horonaim. Sem er.

6. Hafed ydur j burt, og forded ydar Lijfe, Enn þu munt vera so sem Lijng a Eydemørkenne.

7. Þar fyrer, ad þu treyster uppa þijna Bygging, og a þijna Fiesiodu, þa skalltu unnenn verda, og Camos hann hlytur og Hertekenn j burt ad fara, med sijnum Prestum og Hofdingium.

8. Þviad sa Foreydslu-Madurenn skal koma yfer alla Stadena, so ad þar skal ecke eirn Stadur undann ganga, Þar skulu bæde Dalerner fordiarfast, og Sliettlended foreydt verda, þviad DROttinn hefur sagt þad.

9. Giefed Moab Fiadrer, hann mun utganga sem ad flyge hann, og hans Stader skulu j Eyde liggia, so ad eingenn skal bua j þeim.

10. Bølvadur sie Sa sem svikfamlega giører Verk DROTTins! Bølvadur sie Sa sem fyrerbydur sijnu Sverde ad uthella Bloodenu!

11. Moab hefur vered Athugalaus j fra Barndome sijnum, og leiged kirr a sinne Dregg, og alldrei Steyptur vered ur ødru Kierenu j annad, og alldrei j Herleiding utfared, Þar fyrer hefur hønum sinn Smeckur hinn same vered, og hans Lykt ecke umskipteleg orded.

12. Þar fyrer sioa þu! seger DROttinn, Sa Tijme skal koma, ad Eg vil senda þeim þa Flutnings-Menn, sem þa skulu burt flytia, og tæma þeirra Kiørølld, og j sundur briota þeirra Leigla.

13. Og Moab skal til Skammar verda yfer Camos, lijka so sem þad Israels Hus er til Skammar orded yfer Bethel, hvar uppa þeir þo treystu.

14. Hvørnenn dyrfest þier ad segia? Vier erum Hetiur og rietter Strijds-Menn?

15. Med þvi þo ad Moab skal foreydast,

og upp skal stijged vera j hans Borger, og þeirra hiner Bestu Karlmenn skulu hliota ofan ad ganga til Slaatrunar-Beckfsins, seger Sa Kongurenn, sem heiter DROttinn Zebaoth.

16. Þviad Olucka nn Moab mun bradlega koma, og hans Ogiæfa hun flyter sier miøg.

17. Kiære! Sijaed þo aumur a honum, þier sem bued j kringum hann, og hans Nafn þeckеd, og seged, Hvorsuenn er sa Øfluge Vondurenn, og sa hinn Dijrdarlege Stafurenn so j sundur brotenn?

18. Stijgdu nidur fra þinne Vegsemd, þu Dotturenn sem byr j Dibon! og sit j Þurcknum, þviad sa Fordiarfarenn Moabs mun koma upp þangad til þijn, og ofan rijfa þijna Kastala.

19. Gack þu framm a Veigenn, og siaa til, þu sem byr j Aroer, Spyr þu þa ad sem þar flya, og undann hlaupa, og seg þu, Hvorsu geingur þad til?

20. Avi! Moab er j Eyde lagdur og fordiarfadur! Yled og æped, Kunngiored þad j Arnon, ad Moab er j Eyde lagdur.

21. Refsingenn er geingenn yfer þad slietta Landed, sem er, yfer Holon, Jahza, Mephaath.

22. Dibon, Nebo, Beth Diblathaim.

23. Kiriathaim, Bethgamul, Bethmeon.

24. Kirioth, Bazra, og yfer alla Stadena j Landenu Moab, hvørt þeir liggia fiærre eda nærre.

25. Pad Horned Moab er afhøggved, og hans Armleggur er j sundur brotenn, seger DROttinn.

26. Gior þu hann druckenn (Þviad hann hoof sig a mote DROttne) so ad hann spye, og nue sijnum Høndum til samans, so ad hann verde eirnenn til Hæadungar.

27. Þviad Israel hefur hloted ad vera þitt At hlæge, so sem ad hefde hann vered fundenn a medal Þiofa, og med þvi, ad þu talader þvijlijkt a mote honum, þa skalltu og eirnenn j burt.

28. Og þier Innbyggiarar j Moab! yfergiefed Stadena, og bued j Biorgenum, og giored so sem Dufurnar, þær ed giora sier Hreidur j þeim diupu Holunum.

29. Alla Tijma hefur sagt vered af hinum Rijkelaata Moab, þad hann sie miøg Rijkelaatur, Drambsamur, Hofmoodugur, Sierlaatur, og Forsugur.

30. Enn DROttinn seger, Eg þecke vel hans Reide, ad hann orkar ei so miklu, og hann tekst meira a Hendur ad giora, enn hans Maattur er til.

31. Þar fyrer hlyt Eg ad graata yfer Moab, og hropa yfer allann Moab, og Harma bera yfer þvi Folkenu j Kirheres. Eg hlyt ad graata yfer þier Jaeser!

32. Þu Vijn-Vidurenn j Sibma! þviad þijner Vijn-Vidarkvister eru farner yfer um Hafed, og komner allt til þess Siaafar-Hafsins Jaeser, sa Fordiarfarenn er innfallenn j þijna Haust-Vinnu, og þijna Vijn-Safnan.

33. Glede og Unun er j burtu af Akrenum, og af þvi Landenu Moab, og Menn skulu ecke neitt Vijn framar troda þar. Hann sem Vijnberenn j sundur tredur, skal ecke meir kveda sijna Vijsu.

34. Vegna þess Heroopsins j Hesbon, allt til Eleale, hvørt ed hliomar jnn til Jahza, fra Zoar, þeirre Þrevetru (a) Kunne, jnn til Horonaim, þviad þau Vøtnenn Nimrim skulu eirnenn uppþurkast.

(a) (Kunne) Rijke Moabs er sem þrevetur Kijr, Sterkt, Rijkt, Draattar-sterkt, fullt af Gotse og Folke.

35. Og DROttinn seger, Þar med vil Eg giora eirn Enda vid Moab, so ad þeir skulu ecke leingur Offra þar a Hædunum, og Reykia fyrer sijnum Gudum.

36. Þar fyrer giellur Mitt Hiarta yfer Moab, sem eitt Tramet, og yfer þvi Folkenu j Kirheres hlioodar Mitt Hiarta, sem Tramet, þviad þeir giordu ofmiked þar ut af, hvar fyrer ad þeir skulu j Eyde leggiast.

37. Øll Høfud skulu skollott vera, og øll Skiegg afrokud, allar Hendur skulu j sundur

sundur kloraſt, og hvor Madur ſkal klæda ſig j Seck.

38. Og þeir ſkulu grꝏta og kveina alla⸗ vegana j Moab, bæde a Strætunum, og a Ræfrunum, þviad Eg hefe j ſundur ſleiged Moab, ſo ſem eitt Herfelegt Kier, ſeger DROTTinn.

39. O Hvorſu er hann fordiarfadur! Hvorſu aumlegana þa grꝏta þeir, Hvorſu ſkammarlega þa nidur heingia þeir Hofu⸗ denn, og Moab er ordenn til Hꝏdungar, og til Skielfingar øllum þeim ſem bua j krin⸗ gum hann.

40. Þviad ſo ſeger DROttinn, Sioꝏ þu, hann flygur framm ſem ein Orn, og utbrei⸗ der ſijna Vænge yfer Moab.

41. Kiriath er unnenn, og þeir hinu ſterku Staderner eru jnntekner, og Hiortunn Kap⸗ panna j Moab ſkulu vera a þeim ſama Tij⸗ ma ſem Konu⸗Hiarta j Barn⸗Sott.

42. Þviad Moab ſkal afmꝏadur verda, ſo ad hann ſkal ecke neitt Folk framar meir vera, þar fyrer, ad hann hefur upphafed ſig a mote DROTTne.

43. Hrædſla, Grøf og Snara kiemur yfer þig, þu ſem byr j Moab! ſeger DRottinn.

44. Hvor ſem umflyr Hrædſluna hann mun falla j Grøfena, og hvor ſem kiemſt ur Grøfenne, hann mun fangenn verda j Sno⸗ runne, þviad Eg vil lꝏta eitt þeirra Vitiu⸗ nar⸗Aar koma yfer Landed Moab, ſeger DROTTinn.

45. Þeir ſem ur Slagenu flya munu leita ſier Hiꝏlpar j Hesbon, Enn þar ſkal eirn Elldur utganga af Hesbon, og eirn Loge af Sihon, hvor ed foreyda mun þeim Plꝏtſu⸗ num j Moab, og þviStyrialldarſama Folke.

46. Vei þier Moab! Þad Camos Folk er Fortapad, þviad þeir hafa teked þijna Syne og Dætur, og Herleidda j burt flutt.

47. Enn Eg vil ſnua Herleidingunne Moab a þeim epterkomande Tijmum, ſeger DRot⸗ tinn. Þetta ſie ſagt af þeirre Refſingunne yfer Moab.

## XLIX. Capitule.

Jeremias ſpaer E. ſ. ſ. (I) þeim Ammonitum; (II) Edomitum; (III) þeim Syrlendſku; (IV) Kedar og Haſors Konunga Rijkium, it: (V) þeim Elamitum.

I. A moote Ammons Børnum ſeger DROt⸗ tinn ſo, Hefur Iſrael þa ecke nein Børn? Edur hefur hann ongvann Erfingia? Hvar fyrer eignaſt þa Malchom þad Landed Gad, og hans Folk byr j þeirra Stødum?

2. Þar fyrer ſioꝏ þu! Sa Tijme kiemur, ſeger DROTTinn, Eg vil lꝏta heyraſt eitt Her⸗Hroop yfer Rabbath Ammons Barna, þad hun ſkal j einne Hrugu j Eyde liggia, og þeirra Dætur ſkulu med Ellde upp brenndar verda, Enn Iſrael ſkal eignaſt þa ſem ſier eignudu hann, ſeger DROTTinn.

3. Kveina þu, O Hesbon! Þviad Ai er nidurbrotenn, Hroopeð þier Dætur Rabba! og klæded ydur j Secke, Harmed, og hlau⸗ ped j kringum Murveggena, þviad Malchom ſkal Hertekenn j burt flytiaſt, med ſijnum Preſtum og Hofdingium.

4. Hvad treyſter þu uppa þitt Einge? Þij⸗ nar Eingiar eru nidurſøcktar, Þu hin Ohly⸗ duga Dotturenn! þu ſem treyſter a þijna Fie⸗ ſiodu, og ſeger j þijnu Hiarta, Hvor þorer ad koma a moote mier?

5. Sioꝏ þu! ſeger DROTTinn DRot⸗ tinn Zebaoth, Eg vil lꝏta koma Hrædſlu yfer þig, af øllum þeim, ſem j kringum þig bua, ſo ad ſinn Veigenn ſkal hvor utrekenn vera, og þar ſkal eingenn ſa vera, ſem ſamanſafne þeim aptur, ſem j burt flued hafa.

6. Enn þar epter vil Eg ſnua Herleidingun⸗ ne þeirra Ammons Barna, ſeger DROttinn.

## A moote Edom.

II. 7. So ſeger DROTTinn Zebaoth, Er þar þa eingenn Vijsdomur meire j Theman? Er þar þa eckert Raad hiꝏ þeim Vijſu? Er þeirra Vijsdomur ſo lauſlegur?

8. Flyed undann, ſnued ydur, og feled ydur

ydur diupt nidur Þier Innbyggiarar j Dedan! Þviad Eg læt Ogiæfu koma yfer Esau, a hans Vitiunar Tijma.

9. Þeir sem Vijned samann lesa skulu koma yfer þig, þeir ed ecke munu loata þier miked epter til ad safna, og Þiofar skulu yfer þig koma a Noattar þele, þeir skulu fordiarfa þa noog.

10. Þviad Eg hefe giort Esau Nakenn, og hans heimuglega Stade opennberad, so hann kann ecke fela sig, hans Sæde, hans Brædur, og hans Noabuar eru foreydder, so ad þar eru øngver fleyre epter af þeim.

11. Enn þo þad hvad epter verdur af þijnum Fodurleysingium, þeim vil Eg unna Lijfsins, og þijnar Eckiur skulu vona a Mig.

12. Þvi so seger DROTTinn, Sioa þu! Þeir sem þad høfdu ecke verdskulldad, ad drecka þann Kaleikenn, þeir hliota ad drecka. Og þu skyllder Hegningarlaus vera? Þu skallt ecke O-hegndur vera, helldur þa hlytur þu og eirnenn ad drecka.

13. Þviad Eg hefe svared vid sioalfann mig, seger DROTTinn, Þad Bazra skal verda ein Undran, Smoan, Foreyding, og Bølvan, og aller hennar Stader ein Eylijfleg Eydemørk.

14. Eg hefe heyrt af DROttne, ad þar sie eirn Bodskapur utsendur a medal Heidingianna, Samansafned ydur, og komed hingad j moote henne, Bued ydur til Bardaga.

15. Þviad sioa þu! Eg hefe giort þig Lijtels-Hoattar a medal Heidingianna, og Fyrerlitna a medal Mannanna.

16. Þitt Fors og Hiartans Hofmoodur hefur sviked þig, af þvi þu byr j þeim Biarg-Skorunum, og hefur hoa Biørg under þier, Þo ad þu hreidrader þig so hoatt sem Ørnenn, þa vil Eg þo hrinda þier ofann þadan, seger DROttinn.

17. So skal Edom verda j Eyde, ad aller þeir sem ganga þar framm hioa, skulu undrast þad, og blystra yfer øllum hans Ploagum.

18. Lijka sem þad Sodoma og Gomorra med sijnum Noagrønnum eru umvelltar, seger DROTTinn, so þad eingenn skal þar bua, nie neirn Madur Hus hafa.

19. Þviad sioa þu! Hann kiemur upp hingad sem Leon, j fra þeirre Dramboatu Jordan, j moote þeim sterku lystelegu Eingium, Þviad Eg vil loata hann snarlega þangad hlaupa. Og hvør veit! Hvør Sa (a) Unge Sveirnenn er, sem Eg vil ut bua a moote hønum, Þvi hvør er Mier jafn? Hvør vill fræda Mig? Og hvør er sa Hyrderenn sem stadest gietur a moote Mier?

(a) (Unge Sveirnenn) Alexander hinn Mikle, sa sem øll Lønd skyllde vinna.

20. So heyred nu þad Roaded DROTTins, sem hann hefur yfer Edom, og hans Hugsan, sem hann hefur yfer þeim Innbyggiurunum j Theman. Hvad gillder? (b) Ef ad þeir Hyrdara-Pilltar skulu ecke draga þa, og nidur briota þeirra Bustade.

(b) (Hyrdara-Pilltar) Høfdingianna og Hofudsmanna Folk, Þvi Hyrdarar kallast hier hvørvetna Høfdingiar, Þeir sem fæda skulu þa godu, Enn straffa þa Illu.

21. So ad Jørdenn skal bifast vid, nær ed þeir falla, hvør um þverann annann, og þeirra Hroopan skal heyrast j hioa Hafenu Rauda.

22. Sioa þu! Hann flygur upp hingad, sem ein Ørn, og hann mun utbreida sijna Vænge yfer Bazra. A þeim sama Tijma skulu Hiortunn Kappanna j Edom vera lijka sem eitt Konu Hiarta, j Barnburdar Soott.

## A moote Damascum.

III. 23. Hemath og Arpad eru aumlega staddar, þær vantreysta sier, Þviad þær heyra eitt jllt Rykte, þeir sem bua vid Hafed eru so hrædder ad þeir kunna ongva Hvijld ad hafa.

24. Damascus er Huglaus, og flyr undann, Hun skielfur, og er j Angist og Harmkvælum, sem Kona j Barn-Sott,

25. Hvørnenn þa? Er hann nu ecke yfergiefenn, Sa hinn Nafnfræge, og gledelege Stadurenn?

26. Þar fyrer skulu hans Æskumenn þar nidur slegner liggia a hans Strætum, Og allt hans Strijds-Folk forganga, a þeim sama Tijma, seger DROttinn Zebaoth.

27. Og Eg vil setia Elld j Murveggena til Damascum, so ad hann skal foreyda þeim Herbergiunum BenHadad.

## Moote Kedar, og þvi Kongs-Rijkenu Hazor, Hvert Nabochodonosor, Konungur af Babylon, sloo.

IV. 28. So seger DROttinn, Standed upp, og fared upp j Kedar, og foreyded þeim Bornunum a moote Austrenu.

29. Menn skulu taka þeirra Bustade og Hiarder, þeirra Landtielld, oll Verkfære, og þeirra Ulfallda skulu þeir j burt flytia, og þeir skulu hrædelegana kalla ad þeim allt um kring.

30. Flyed undann, hafed ydur snarlega burt þadann, byrged ydur diupt nidur, Þier Hazor Innbyggiarar! seger DROTTinn, Þviad Nobochodonosor, Kongurenn af Babylon, hefur nockud j Sinne vid ydur, og hann hugsar til ydar.

31. Fared a Fætur, og ferdest upp þangad, moote þvi Folke sem gnog hefur til, og ugglaust byr, seger DROttinn, Þeir hafa hvørke Port-Dyr nie Hurdar-Steingur, og bua einer samann.

32. Þeirra Ulfalldar skulu gripner verda, og þeirra hid mikla Fie j burt teked verda. Og Eg vil burt dreifa þeim j alla Vinda, sem bua j Afkimunum, og af øllum Aattum vil Eg laata þeirra Ogiæfu koma yfer þa, seger DROttinn.

33. So ad Hazor skal verda Dreka-Bæle, og ein Eylijfleg Eydemørk, so ad eingenn skal bua þar, og eige nockur Madur skal hafa þar sitt Heimele.

V. 34. Þetta er þad Ord DRottins, sem skiede til Jeremiam Propheta, a moote (e) Elam, j Upphafe Rijkis-Stiornar Zedechia, Kongsins Juda, og sagde,

35. So seger DROttinn Zebaoth, Sia þu! Eg vil sundur briota Elams Boga, þeirra hid ædsta Vellde.

(e) (Elam) Þeir Persar.

36. Og Eg vil laata þa Fiora Vindana, ur þeim Fiorum œttum Himensins, koma yfer þa, Og Eg vil j burt dreifa þeim j alla þa somu Vinda, so ad þar skal ecke neitt Folk þad til vera, ad eige skule þangad koma hiner burt reknu af Elam.

37. Og Eg vil giora Elam duglausann fyrer sijnum Ovinum, og fyrer þeim sem standa epter þeirra Lijfe, og Eg vil laata Ogiæfu koma yfer þa med minne Grimmdar-Reide, seger DROttinn. Og Eg vil senda Sverded a Bak til vid þa, þangad til ad Eg hefe uppryckt þeim.

38. Eg vil setia minn (d) Stool j Elam, og Eg vil fyrerkoma þar bæde Kongenum og Hofdingiunum, seger DROttinn.

(d) (Stool) Þad er, Alexander hinn Mikla, sa sem yfervann Elam.

39. Enn a epterkomande Tijmum vil Eg snua Herleidingunne Elam, seger DROttinn.

## L. Capitule.

Jeremias hótar þeim Babyloniſku, ad þeir Perſiſku og Medíſku mundu heria a þa, so þad Herteknu Gydinga Folk frelſadest.

Þetta er þad Ord sem DROTTinn talade fyrer Jeremiam Propheta, a moote Babylon, og Landenu þeirra Chaldeanſku.

2. Kunngiøred þad a medal Heidenna Pioda, og laated þad hlioma, Setied upp Merked, og laated þad hlioma, og byrged þad ecke nidre, og segied, Babylon er unnenn, Bel stendur med Skomm, Merodach er j sundur brotenn, hennar Afguder standa med Skomm, og hennar Skurgod eru sundur brotenn.

3. Þviad þar ferdast eitt Folk upp af Nordrenu, a moote þeim, sem þeirra Land skal j Eyde leggia, so ad eingenn skal þar inne bua, helldur skulu bæde Menn og Fienadur flya j burt þadann.

4. A þeim somu Døgum, og a þeim sama Tijma, seger DROTTinn, skulu Israels

Born, med Bornum Juda, koma og fara hingad graatande, og leita DROttins Guds þeirra.

5. Þeir munu spyria epter Veigenum til Zion, og snua sier þangad, Komed! og naalægium oss til DRottins, med einum Eylijfum Saattmaala, sem alldrei mun forgleymdur verda.

6. Þviad Mitt Folk er so sem ein glotud Hiord, Þeirra Hyrdarar hafa leidt þa afvega, og laated þa villast a Fiollum, so ad þeir geingu af Fiollunum ofann a Hædernar, og forgleymdu so sijnum Hiardar-Husum.

7. Allt hvad sem þa fann þad uppsvelgde þa, og þeirra Oviner sogdu, Vier giorum þad ecke oriettelega, af þvi þeir hafa syndgast a moote DRottne, j Bustad Riettlæresins, og a moote Þeim DROttne sem er Vonenn þeirra Forfedra.

8. Flyed ut af Babylon, og fared j burt af Chaldea Lande, og hegded ydur sem Kiarn-Hafrar fyrer Hiordenne.

9. Þviad sioa þu! Eg vil uppvekia mikenn Flock margra Pioda, af þvi Landenu j moote Nordrenu, og flytia þad upp j moote Babylon, þeir skulu bua sig upp a moote henne, hvorier hana skulu og vinna, Hans Skeyte eru, sem eins gods Strijds-Manns, sem ei fara a mis vid.

10. Og Landed þeirra Chaldeansku skal verda eitt Herfang, so ad aller þeir, sem þad ræna skulu þar noog af faa, seger DROTTinn.

11. Þar fyrer, ad þier gledied ydur af þvi, og hroosed ydur um þad, ad þier hafed rænt mijna Arfleifd, og þier stuckud upp sem feiter Kaalfar, og hneggiudud sem sterker Hestar.

12. Ydar Moder stendur med storre Skomm, og hun sem ydur hefur fædt, er til Haadungar ordenn, Sioa þu, a medal Heidingianna er hun hin Sijdsta, Foreydd, Þurr, og j Eyde.

13. Þviad fyrer saker Reide DROttins, hlytur hun Obyggd og med ollu j Eyde ad vera, so ad aller þeir sem framm ganga hiaa Babylon skulu undrast þad, og blystra yfer ollum hennar Plaagum.

14. Bued ydur til, þier allar Skytturnar, utann um kring Babylon, Skioted uppa hana, spared ecke Skeytenn, þviad hun hefur syndgast a mote DROTTne.

15. Gledied ydur yfer henne allt um kring, hun hlytur ad giefa sig, hennar Grundveller eru falliner, hennar Murvegger eru nidur brotner, þviad þad er Hefndenn DROttins, Hefned ydar a henne, giored vid hana so sem þad hun hefur giort.

16. Upprycked af Babylon, bæde Saad-Monnum, og þeim er uppskiera, so ad hvor snue sier til sijns Folks, og hvor flye burt j sitt Land, fyrer þvi Sverdenu Tyrannans.

17. Jsrael hlaut ad vera ein sundur tvijstrud Hiord, sem Leonenn hafa j burt dreift. First upp aat þa Kongurenn af Assyria, þar næst kugade þa Nabochodonosor, Kongurenn af Babylon.

18. Þar fyrer seger DROTTinn Zebaoth, Gud Jsraels, so, Sioa þu! Eg vil vitia heim Kongsins af Babylon, og hans Lands, lijka sem Eg hefe heim vitiad Kongsins af Assyria.

19. Enn Jsrael vil Eg flytia heim aptur til sijns Heimelis, so ad þeir skulu sier Fædslu faa uppa Carmel og Basan, og þeirra Saaler skulu saddar verda, uppa Fiallenu Ephraim, og Gilead.

20. A þeim sama Tijma, og a þeim Døgum, skal leitad vera ad Misgiordum Jsraels, seger DROTTinn, Enn þar munu ongvar til vera, og ad Syndum Juda, og þar munu ongvar finnast. Þviad Eg vil fyrergiefa þeim sem Eg læt epter verda.

21. Far upp a mote þvi Lande sem alla hefur (a) hugmodad, far upp þangad j mote Innbyggiurunum Heimsoknarennar, Eydelegg og nidur drep þeirra Epterkomendur, seger DROTTinn, og gior þad allt sem Eg hefe boded þier.

(a) (Hugmodad) Hefur hriggt og styggt Gud og Menn

Menn, sem er þess verdt, ad þess sie heim vitiad aptur.

22. Þar er eitt Strijds-Heroop j Landenu, og stor Anaud.

23. Hvornenn geingur þad til, ad Sa Hamarenn allrar Veralldarennar er sundur brotenn og nidur sleigenn?

24. Hvornenn geingur þad til, ad Babylon er so j Eyde vordenn, a medal allra Heidingia? Eg hefe sett Snoru fyrer þig Babylon! þar fyrer ertu eirnenn Hertekenn, adur enn þig varde þess, þu ert fundenn og hondlud, þviad þu hefur stært þig j giegn DROTTne.

25. DROTTinn hefur upploked sinne Hyrdslu, og frammbored Vopnenn sinnar Reide, þviad þessu hefur DROTTinn DROTTinn Zebaoth til vegar komed j Lande þeirra Chaldeanskra.

26. Komed hingad a mote henne, Þier af Endemorkunum! Luked upp hennar Korn-Husum, Kasted henne j eina Hrugu, og foreyded hana, so ad þar verde ecke Neitt epter.

27. Dreped oll hennar Born, og leided þau ofann til Sloatrunar-Becksins, Vei þeim! Þviad Sa Dagurenn er komenn, þeirra Vitiunar Tijme.

28. Þar heyrest þeirra Hroop sem flya, og þeirra sem undann hafa komest, ur Landenu Babylon, so ad þeir kunngiore j Zion Hefndena DROTTins, Guds Vors, og Hefndena hans Musteris.

29. Kalled marga a mote Babylon, Þier sem spanned Bogana! og legged ad henne allavega, þier allar Skytturnar, og loated ongvann þadann komast, Gialdded henne sem hun hefur verdskulldad til, Giored vid hana so sem þad hun hefur giort, þviad hun hefur hondlad drambsamlega j giegn DROTTne, Hinum Heilaga j Jsrael.

30. Fyrer þad skulu hennar Æsku-Menn falla a hennar Strætum. Og aller hennar Strijds-Menn skulu forganga þann sama Tijma, seger DROTTinn,

31. Sioa þu! Þu hin Drambsama! Eg vil til vid þig, seger DROTTinn DROTTinn Zebaoth, þviad þinn Dagur er komenn, sa Tijmenn þinnar Vitiunar.

32. Þa skal sa hinn Drambsame nidur hrynia og falla, so ad eingenn uppreise hann, Eg vil setia Elld j hans Stade, hvor ed foreyda skal ollu þvi hvad j kringum hann er.

33. So seger DROTTinn Zebaoth, Sioa þu, þad Jsraels Born, med Bornum Juda, hlioota ad lijda Yfergang og Oriettinde, aller þeir sem þa Hertekna j burt fluttu hallda þeim, og vilia þa ecke lausa loata.

34. Enn þeirra Frelsare er Oflugur, Hann heiter DROTTinn Zebaoth, hann mun og frammkvæma þeirra Moalefne, so ad hann mun loata Landed bifast, og Jnnbyggiarana j Babylon skioalfande verda.

35. Sverded skal koma, seger DROttinn, yfer þa Chaldeisku, og yfer Jnnbyggiarana j Babylon, yfer hennar Hofdingia, og yfer hennar Spekinga. Sverded skal koma yfer hennar Spoasagnar-Menn, so ad þeir skulu ad Vitleysingium verda.

36. Sverded skal koma yfer hennar hina Oflugu, so ad þeir skulu Duglauser verda.

37. Sverded skal koma yfer hennar Hesta og Vagna, og yfer allann Almugann, sem þar er inne, so ad þeir skulu verda ad (b) Konum. Sverded skal koma yfer hennar Fieskiodu, so ad þeir verde rænter.

(b) Konur sem kveina j Barns Fædingu.

38. Þurkurenn skal koma yfer hennar Vatnsfoll, so ad þau skulu j burt þorna, þviad þad er eitt Skurgoda Land, og troassar uppa sijna hrædelega Asgude.

39. Þar fyrer skulu grimmleg Dyr og Fuglar þar inne bua, og þeir Ungu Struts-Fuglar, og hun skal alldrei framarmeir byggd verda, og eingenn skal bua j henne hiedan af, um Allder og ad Eylijfu.

40. Lijka sem þad Gud hefur kollkastad Sodoma og Gomorra, medur þeirra Noagronnum,

gronnum, seger DROTTinn, so þar skal eingenn jnne bua, nie nockur Madur þar jnne Hus hafa.

41. Sioa þu, Þar kiemur eitt Folk af Nordrenu, marger Heidingiar, og marger Kongar, skulu taka sig upp fra Sijdu Landsins.

42. Þeir hafa Boga og Skiolldu. Þeir eru Grimmleger og O-miskunsamer, þeirra Hliood eru so sem Sioafar-Hliood, þeir rijda a Hestum, tilbuner sem Bardaga-Menn, a mote þier, þu Dotturenn Babylon!

43. Nær ed Kongurenn af Babylon heyrer Rykted af þeim, þa mun hann loata Hendur falla, honum skal so þraungt og angursamt vid þad verda sem Konu j Barn-Sott.

44. Sioa þu! Hann kiemur upp hingad sem annad Leon, j fra þeirre Drambsomu Jordan, j mote þeim sterku Hybylum, þviad Eg vil loata hann snarlega þangad hlaupa. Og hvor veit Hvor Sa (c) Unge Sveirnenn er, sem Eg vil utbua a mote henne? Þvi hvor er Mier jafn? Hvor vill kieña Mier nockud? Og hvor er sa Hyrderenn, sem standa kann a mote Mier?

(c) (Unge Sveirnenn) Alexander. Magnus.

45. So heyred nu Roadagiordena DROTtins, þa sem hann hefur yfer Babylon, og hans Hugsaner, sem hann hefur yfer þeim Jnnbyggiurunum j Chaldea Lande, Hvad skal gillda, ef þad hiner ungu Hyrdararner skulu ecke draga þa, og foreyda þeirra Bustade?

46. Og Jordenn mun skioalfa ut af þvi Hoareystenu, og þad mun hlioda a medal Heidingianna, nær ed Babylon verdur unnenn.

## LI. Capitule.

Jeremias upteiknar Babylonar Eydeleggiug i Eina Bok, hverre hann fleiger i Vatnsfalled Phrath.

So seger DROTTinn, Sioa þu! Eg vil uppvekia einn hvassann Vind a mote Babylon, og a mote hennar Jnnbyggiurum, þeim sem sig hafa sett a mote Mier.

2. Eg vil senda ut þa ed vinsa til Babylon, sem hana skulu vinsa, og hennar Land j burt soopa, þeir ed alla vegana skulu vera j kringum hana, a Deige hennar Olucku.

3. Þviad hennar Skyttur munu ei skiota, og hennar briniudu Strijdsmenn skulu ei kunna ad veria sig. So spared nu ecke hennar Yngismenn, Drepeð nidur allt hennar Herlid.

4. So ad hiner j Helslegnu ligge drepner j Chaldea Lande, og þeir hiner j giegnumlagdu a hennar Strætum.

5. Þviad Jsrael og Juda skulu eige Eckiur yfergiefnar vera af þeirra Gude, DROttne Zebaoth, þviad Landed þeirra hinna hefur miog þunglega syndgast a mote Hinum Heilaga j Jsrael.

6. Flyed ur Babylon, so ad hvor biarge sinne Soalu, so ad þier fortapest ecke j hennar Misgiorninge, þviad þetta er sa Hefndar-Tijmenn DROTTins, hann sem er Endurgialldarenn, og hann vill endurgialllda henne.

7. Sa Gull-Kaleikurenn j Babylon, sem alla Verolldena hefur giort Druckna, hann er j Hende DROTTins, af hennar Vijne hafa drucked allar Heidnar Pioder, þar fyrer þa hafa aller Heidingiar orded so (a) galder.

a) (Galder) Sem hroosa sier Drambsamlega sem Gicker.

8. * Hvorsu skyndelegana þad Babylon er fallenn og nidurbrotenn! Æped yfer henne, Taked eirnenn Smyrsl til hennar Soara, ef ad so kynne ad skie, ad hun mætte læknud verda. * Opinb: B: 14, 8.

9. Vier læknum Babylon, enn hun vill ecke Heilbrigd verda. Þar fyrer loatum hana fara, og forum hvor til sijns Lands, þviad hennar Refsing tekur upp j Himenenn, og nemur under Skijenn.

10. DROTTinn hefur frammflutt vora Riettlæting, Komed! Loatum oss upptelia þau Doadsemdarverkenn DROTTins Guds Vors, til Zion.

11. Joa, Fæged Skeytenn, og tilbued Skiollduna. DROTTinn hefur upp vaked Hugenn þeirra Konganna af Meden, þviad hans Hugsaner standa a mote Babylon, þad hann vilie fordiarfa hana, þviad þetta er Hefndenn DROTTins, Hefndenn hans Musteres.

12. Joa, Setied nu upp Merkenn a Murveggiunum j Babylon, Taked jnn Vardhølldenn, setied til Voku-Meñena, tilskicked Vaktena, þviad DROTTinn hann hugsar nockud, og hann vill eirnenn frammkvæma þad sama, sem hann hefur talad a mote þeim Innbyggiurunum j Babylon.

13. Þu sem byr j hioa þvi hinu mikla Vatnenu, og hefur stora Fiesioodu, þijn Ending er komenn, og þijn Agyrnd er ute.

14. DROTTinn Zebaoth hefur svared vid sijna Soal, Eg vil fylla þig upp med Menn, lijka sem ad være þad Kefer, þeir skulu kveda þier Vijsu.

15. Hann sem giort hefur Jørdena fyrer sinn Kraft, og tilbued Jardarkringluna med sijnum Vijsdome, og hann sem Himenenn hefur tilreidt so skickanlega.

16. Nær ed hann lyster Reidarþrumunne, þa er þar noglegt Vatn under Himnenum, hann uppdregur Þokuna j fra Jardarennar Enda. Hann giorer Elldingar j Regnenu, og lætur Vindenn koma ur leynelegum Aattum.

17. Aller Menn eru Doarar med sinne (b) Konst, og aller Gullsmider standa skammader med sijnar Lijkneskiur, þviad þeirra Afguder eru Svikræde, og hafa ecke Lijf.

(b) (Konst) Þad er, Skurgoda Lærdoomur.

18. Þad er olldungis eckert, og sviksamlegt Verk, Þeir skulu fyrerfarast, nær ed þeirra verdur vitiad.

19. Enn hann er ei so Sa sem Jacobs Fiesiodur er, helldur er hann Sa sem alla Hlute skapar, og Israel er sa Stafureñ hans Arfleifdar, Hann heiter DROttinn Zebaot.

20. Þu ert Miñ Hamar, Mijn Her-Vopn, fyrer Þig hefe Eg j sundurbroted Heidingiana, og Kongarijkenn j Eyde lagt.

21. Eg vil j sundur sloa þijna Hesta og rijdande Menn, Eg vil sundur briota þijna Vagna og Vagn-Menn.

22. Eg vil sundurlemia þijna Karl-Menn og Konur, Eg vil j sundurlemia þijna Olldunga og Ungmenne, Eg vil sundur lemia þijna Yngesmenn og Meyar.

23. Eg vil sundur lemia þijna Hyrdara og Hiordena, Eg vil sundurlemia þijna Kot-Karla og þeirra Ok, Eg vil sundur lemia þijna Hofdingia og Herra-Menn.

24. Þviad Eg vil endurgiallda Babylon, og øllum Innbyggiurum Chaldeanskra, alla þeirra Illsku, sem þeir hafa giort a moote Zion, fyrer ydar Augum, seger DROTTinn.

25. Sioa þu! Eg vil til vid þig, Þu hid skadsamlega Fiall! þu sem fordiarfader alla Verolldena, seger DROTTinn, Eg vil utrietta mijna Hønd yfer þig, og vellta þier so ofann af Biørgenu, og Eg vil giora eitt uppbrennt Fiall af þier.

26. So ad þeir skulu ecke gieta teked eirn Hyrningar-Stein, edur Grundvallanar-Stein, ut af þier, helldur þa skalltu vera ein Eylijfleg Eydemørk, seger DROTTinn.

27. Setied upp Merkenn j Landenu, Bloased j Herludrana a medal Heidingianna, Helged hina Heidnu a moote henne, Kalled a moote henne þau Kongarijkenn, Ararat, Meni og Ascenas, tilsetied Hofuds-Menn a moote henne, Hafed Hestana upp hingad, sem hurrande Kefer.

28. Helged hina Heidnu a moote henne, sem er Kongana af Meden, med øllum sijnum Hofdingium og Herrum, og øllum Herradæmum þeirra Lands.

29. So ad Landed skal bifa og skielfast vid, Þviad þær hugsaner DROttins skulu fullkomnadar verda a moote Babylon, so ad hann mun giora þad Landed Babylonar ad Eydemørku, so ad eingenn skal þar jnne bua.

30. Þær Hetiurnar j Babylon, skulu ecke

þora ad fara ut a Vølluna, helldur munu þeir hallda sig jnne j sijnum Kostulum, þeirra Hreyste er utgiord, og þeir eru vordner (c) Konur, þeirra Bustadur er uppbrenndur, og þeirra Slagbrandar j sundurbrotner.

(c) (Konur) Þad er, Vantreystande og hræдder, sem Konur j Barns-Fædingu.

31. Hier hleypur eirn, þar annar, hvor moot ødrum, og eirn Sendebodenn mæter hier og þar hvor ødrum, ad þeir kunngiøre þad Kongenum af Babylon, þad hans Stadur sie yfer unnenn, allt til Enda.

32. Og Hafnernar Innteknar, og Sioafar-Dijkenn uppbrennd, og Bardaga-Mennerner Huglauser ordner.

33. Þviad so seger DROTTinn Zebaoth, GUD Israels, Dotturenn Babylon hun er lijka sem eitt Korn-Hlodu-Golf, nær ed þeir þreskia þar a, hennar Kornskiera skal snarlega koma.

34. Nabochodonosor, Kongurenn j Babylon, hefur uppeted og fyrerkomed mier, hann hefur giort eitt tomt Kier af mier, hann uppsvelgde mig sem eirn Dreke, hann uppfyllde sinn Kvid af mijnu Besta, Hann hefur utreked mig.

35. Enn nu munu koma yfer Babylon þau Oriettindenn sem Babylon giorde mier, og mijnu Hollde, seger hun sem bygger j Zion, og mitt Blood yfer þa Innbyggendur j Chaldea Lande, seger Jerusalem.

36. Þar fyrer seger DROTTinn so, Sioa þu! Eg vil frammfilgia þijnu Mœalefne, og hefna þijn, Eg vil uppþurka hennar Sio, og lœata hennar Vatnsbrunna upp þorna.

37. Og Babylon skal verda ad eirnre Griot-Hrugu, og ad Dreka-Bæle, ad Forundran og Blystran, so ad eingenn skal bua þar jnne.

38. Aller skulu þeir grenia sem Leon, og hrijna sem ung Leon.

39. Eg vil setia þa j Hita med sinn Dryck, og vil giora þa (d) druckna, so ad þeir skulu glader vera, og sofna Eylijfum Svefne, af hvorium þeir skulu alldrei vakna, seger DROTTinn.

(d) (Druckna) Þad er, Eg vil lœata þa Diarflega uppsluka allrar Verralldar Gots og Lyde, enn þegar þa minnst varer, skal Svefn yfer þa koma, so ad þeir skulu forganga ad Eylijfu.

40. Eg vil leida þa ofann, lijka sem Lomb til Slœatrunar Necks, so sem Hrutana med Kiarn-Hofrunum.

41. Hvornenn er Sesach yferunnenn? og þeir hiner nafnfrægu j allre Verolldenne eru so hondlader, Hvornenn er Babylon ordenn so til Forundrunar, medal Heidingianna?

42. Sioafar-Hafed er geinged yfer Babylon, og han er hulenn af þeim Fioldanum Bylgnanna þess hins sama.

43. Hennar Stader eru j Eyde lagder, og ordner ad þurru Eydelande, ad þvi Landenu sem eingenn byr jnne, og þar ed eingenn Madur geingur jnne.

44. Þviad Eg hefe vitiad Bels j Babylon, og dreiged þad ut af hans Kverkum sem hann hafde jnnsvelgt, og þeir hiner Heidnu skulu ecke framar meir hlaupa til hans, Þviad Murveggerner j Babylon eru eirnenn nidur falliner.

45. Fared ut Mitt Folk! og biarge hvor sinne Sœalu, fra þeirre Grimmdar-Reidenne DROttins.

46. Ydart Hiarta mætte annars bliugt verda, og Hrædslufullt, af þvi Hroopenu sem Menn munu heyra j Landenu. Þviad a Aarenu skal þar utganga eitt Hroop, og epter þad hid sama, a þvi ødru Aarenu, eirnenn eitt Hroop, yfer Ofrijke j Landenu, og hvor Hofdingenn mun vera j mote ødrum.

47. Þar fyrer sioa þu! Sa Tijme kiemur, ad Eg vil vitia Afgudanna j Babylon, og allt hennar Land skal verda til Skammar, og hennar jhelslegnu skulu liggia þar jnne.

48. Himen og Jord, og allt hvad þar er j, skal gledia sig yfer Babylon, ad hennar Foreydslu Menn eru komner af Nordrenu, seger DROttinn.

49. Og lijka sem Babylon fellde þa helslegnu j Israel, so skulu þeir hiner jhelslegnu fellder verda j Babylon, j ollu Landenu. 50.

50. So fared nu burt Þier sem komest hafed
undann Sverdenu! og tefied ecke, Hugsed til
DRottins j fiarlægu Lande, og læted Jeru=
salem vera j ydru Hiarta!
51. Vier vorum skammader þa vier hlu=
tum ad heyra þa Forsmaan, og Skømmenn
hulde vort Andlit, þa hiner annarlegu komu
yfer Helgedomenn j Huse DRottins.
52. Þar fyrer sia þu! Sa Tijme kiemur
seger DROTTinn, þad Eg vil vitia hennar
Afguda, og þeir sem Banvæner eru af Saa=
rum skulu stynia j ollu Landenu.
53. Og þo ad Babylon stijge upp j Hime=
nenn, og giorde sig fasta j Hædunum, þa
skyllde þo Foreydslu=Mennerner koma fra
Mier, yfer hana, seger DROTTinn.
54. Menn heyra Hrooped j Babylon, og
stoora Eymd j Chaldea Lande.
55. Þviad DRottinn foreyder Baby=
lon, hann foreyder hana med so stooru Hroo=
pe og Hæreyste, þad hennar Bylgiur þær dy=
nia, so sem mikel Votn.
56. Þviad Foreydslu=Madurenn er ko=
menn yfer Babylon, hennar Hreyste=Menn
skulu Hertekner verda, hennar Bogar j sun=
dur brotner, þviad GUD Hefndarennar
DROTTinn endurgielldur henne.
57. Eg vil giora hennar Hofdingia og
Vijsdoms=Menn, Herra og Hofuds=Menn,
og Strijds=Menn, druckna, so ad þeir skulu
sofna Eylijfum Svefne, af hvorium þeir sku=
lu alldrei upp vakna, seger Sa Kongurenn sem
heiter DRottinn Zebaoth.
58. So seger DROTTinn Zebaoth,
Þeir Murveggerner hinnar miklu Babylon
skulu nedan til grafner verda, og hennar hin
hææstu Port skulu med Elldi upp tendrud ver=
da, so þad Erfided Heidingianna skal til for=
giefens verda, og þad skal brennut verda, sem
Folked uppbiggde med Erfidismunum.
59. Þetta er þad Ord sem Jeremias Pro=
phete baud Seraia, Syne Neria, Sonar
Mahsea, þa ed hann for til Babylon, med
Zedechia, Kongenum Juda, a þvi Fiorda Ara=
renu hans Kongs=Rijkes, og Seraia var
eirn Fridsamur Hofdinge.
60. Og Jeremias hann skrifade alla þessa
Ogiæfu j eina Bok, sem koma skyllde yfer Ba=
bylon, sem eru oll þesse Ordenn, hvor ed skri=
fud eru a moote Babylon.
61. Og Jeremias sagde til Seraia, Nær
þu kiemur til (e) Babylon, þa sia þu til, og
les oll þesse Ord.

(e) (B. bylon) Þad skiede fyrer Eydeleggingena, kannske til ad veita Kongenum af Babylon Styrk.

62. Og seg þu! DRottinn! Þu hefur
talad j giegn þessum Stad, ad þu villder af=
maa hann, so ad eingenn skal bua þar inne,
hvorke Menn nie Fienadur, helldur skal hann
j Eyde vera Eylijflegana.
63. Og nær ed þu hefur utlesed Bokena,
þa bitt einn Stein vid hana, og kasta henne so
uti Phrath.
64. Og segdu so, Lijka so skal Babylon nidur
sokt verda, og ecke upp aptur koma fra þeir=
re Ogiæfunne, sem Eg vil leida yfer hana, hell=
dur þa skal hun forganga! So langt hefur
Jeremias talad.

## LII. Capitule.

Hversu ad Jerusalem vard (I) Hersetinn; (II) Løgd i Eyde; og (III) Rænd; En (IV) Joachin veitest Konungleg Virding i Babylon.

I. Zedechias var eins Aars og Tuttugu ga=
mall þa ed hann vard Kongur, og
hann rijkte j Ellefu Aar til Jerusalem, Hans
Moder hiet Hamutal, Dotter Jeremia, af
Libna.
2. Hann giorde þad sem DRottne illa lij=
kade, lijka so sem ad Joachim hafde giort.
3. Þviad Reide DRottins gieck yfer Je=
rusalem og Juda, þangad til ad Hann j burt
fleygde þeim fra sijnu Auglite, og Zedechias
fiell fra Kongenum af Babylon.
4. Enn a þvi Nijunda Aarenu hans Kongs=
Rijkis, a þeim Tijunda Deige hins Tijunda
Maanadar, þa kom Nabochodonosor, Kon=
gurenn af Babylon, med allann sinn Her a

moote Jerusalem, og setteſt um hana, og giorde Hervirke utann um kring hana.

5. Og Stadurenn var so umsetenn, allt til hins Ellefta aarsins Kongsins Zedechia.

II. 6. Enn a þeim Níjunda Deigenum hins Fiorda Moanadar, took Hungred miog ad vaxa j Stadnum, og Folked j Landenu hafde ongvann Mat til meir ad eta.

7. So brutuſt Menn jnn Stadenn, og aller Striids-Menn flydu undann, og fooru af Stadnum a Noattarþele, um þann Veigenn a Portenu, a millum Tveggia Murveggia, sem er j hioa Konungsins Alldingarde. Enn þeir Chaldeanſku loau j kringum Stadenn.

8. Og þa ed þeir fooru ut, Veigenn ad Eydemorkenne, þa sokte Herenn þeirra Chaldeanſku epter Kongenum, og toku Zedechiam a þeim Vollum hioa Jericho, þa tviiſtradeſt allt hans Lid j burt fra honum.

9. Og þeir gripu Kongenn, og hofdu hann upp til Kongsins af Babylon, j Riblath, sem liggur j Landenu Hemath, Hann sagde Dom yfer honum.

10. Þar liet Kongurenn af Babylon drepa Bornenn Zedechiæ fyrer hans Augum, Hann sloo og j Hel alla Hofdingia Juda, j Riblath.

11. Enn a Zedechia liet hann ſtijnga ut Augunn, og binda hann med tveimur Vidium, og Kongurenn af Babylon flutte hann so til Babylon, og sette hann j Fangelse, þangad til ad hann andadeſt.

12. A þeim Tijunda Deigenum hins Fimmta Moanadarins, sem var þad Nijtianda Ared Nabochodonosors, Kongsins af Babylon, kom Nebusar Adan, Hofuds-Madurenn, sem med jafnade var hioa Kongenum j Babylon, til Jerusalem.

13. Og brennde upp Hus DROTTins, og Kongsins Hus, og oll Husenn j Jerusalem, oll þau ſtooru Husenn brennde hann upp med Ellde.

14. Og allur sa Herenn þeirra Chaldeanſku, sem var hia Hofuds-Manuenum, nidur rifu Murveggena, kringum alla Jerusalem.

15. Enn þad O-rijka Folked, og annad Folk, sem enn var epter j Stadnum, og þeir sem geinged hofdu a Hendur Kongenum af Babylon, og þad annad Handverks-Folk sem epter var, þa flutte Nebusar Adan, Hofuds-Madurenn, Herteknа j burt.

16. Og af þvi Foatæka Folkenu a Lands-Byggdenne, liet Nebusar Adan Hofuds-Madurenn vera Vijngards-Menn og Akur-Karla.

III. 17. Enn þa Kopar-Stoolpana j Huse DROTTins, og Stoolana, og þad Kopar-Hafed j Huse DROTTins, sundur brutu Chaldeanſker, og fluttu allann þann Malmenn til Babylon.

18. Og Katlana, Sleifarnar, Hniifana, Munnlugarnar, Matkrokana, og oll þau Koparkierenn sem Menn plogudu ad hafa til Guds-Pionuſtu, þa tooku þeir j burtu.

19. Þar til med took Hofuds-Madurenn allt þad j burt sem Gull og Silfur var, bæde Bikara, Glodar-Ker, Munnlaugar, Katla, Liosa-Stiaka, Skeider og Skaaler.

20. Þa Tvo Stoolpana, þad eina Hafed, þa Tolf Kopar-Uxana, sem j ſtadenn Stoolanna ſtodu, hvoria Salomon Kongur liet giora til Huss DROTTins, Malmurenn af ollum þessum Kierum var so mikell, ad hann vard eige veigenn.

21. Enn þeir Tveir Stoolpar, var hvor um sig Atian Alna hoar, og ein Snura, Tolf Alna laung, vafdeſt j kringum þa, og hun var Fiogra Fingra þyck, og hol jnnann.

22 Og uppa hvorium fyrer sig ſtood eirn Kopar-Hnappur, Fimm Alna Hoar, og þar voru giord utan um kring hvorn Hnappenn Granata-Eple, oll samann ut af Kopar, og eirn Stoolpenn var sem hinn annar, og þau Granata-Eplenn lijka so.

23. Enn þau Granata-Eplenn voru Sex og Nijutyger þar uppa, og oll Granata-Eplenn voru Hundrad a eirne Liſtu allt um kring.

24. Og Hofuds-Madurenn took Preſtenn

Seraia,

Seraia, af þeirre Firstu Skipunenne, og Prestenn Zephania, af þeirre annare Skipunenne, og Þria Dyravorduna.

25. Og eirn Hird-Svein ut af Stadnum, sem var settur yfer Striids-Folked, og Sio Menn, þa sem vera vattu hiaa Kongenum, þeir ed funduſt i Stadnum, þar til med Sopher, þann Hershofdingiann, sem vanur var ad velia ut Leidangurs Lided, þar til Sextiigu Menn af Lands-Folkenu, sem funduſt i Stadnum.

26. Þessa took Nebusar Adan, Høfuds-Madurenn, og flutte þa til Kongsins af Babylon, i Riblath.

27. Og Kongurenn af Babylon drap þa i Riblath, sem liggur i Landenu Hemath. Þannenn vard Juda i burt fluttur af siinu Lande.

28. Þetta er þad Folk sem Nabochodonosor burt flutte, sem er a Þvi Siounda Aarenu, Þriar Þusunder, Þria og Tuttugu Gydinga.

29. Enn a þvi Atianda Aarenu Nabochodonosors, Atta Hundrud, Þriatiige og Tvær Saaler, af Jerusalem.

30. Og a þvi Þridia og Tuttugaſta Aarenu Nabochodonosors i burt flutte Nebusar Adan, Hofuds-Madurenn, Sio Hundrud, Fiorutiige og Fimm Saaler, af Juda. Allar Saaler eru Fiorar Þusunder og Sex Hundrud.

IV. 31. Enn a þvi Þriitugaſta og Siounda Aarenu, epter þad ed Joachin, Kongurenn Juda, var i burt fluttur, a þeim Tuttugaſta og Fimta Deige hins Tolfta Manadar, upphoof Evil Merodach, Kongurenn af Babylon, a þvi Aarenu sem hann vard Kongur, Hofud Joachins, Kongsins af Juda, og liet hann ut af Mirkvaſtofunne.

32. Og talade vinsamlega vid hann, og sette hans Stool yfer Stoolum þeirra Konganna sem hiaa honum voru i Babylon.

33. Og hann umſkipte vid hann þeim Klædnade sem i Mirkvaſtofunne hafde hann haft, so ad hann aat med honum alla Tiima, so leinge sem hann lifde.

34. Og honum vard alltiid giefed sitt Upphellde af Kongenum til Babylon, so sem honum var til einkad, þa Stund hann lifde, allt til hans Endalyktar.

Ender Prophetans Jeremiæ.

# Harmagraatur Jeremiæ.

## I. Capitule.

Jeremias (I) Harmar yfer Jerusalems Eydeleggíng, (II) fyrer Misgiorda Saker Gydinga Folks.

I. 1. Hvornenn liggur ſu Borgenn i Eyde, sem full var med Folk? Hun er ordenn sem ein Eckia, ſu sem var ein Hofdingia Kvinna a medal þeirra Heidnu, og Drottingenn i Londunum hlytur nu Skattgilld ad vera.

2. Hun grætur a Nottunne, so ad Taarenn renna ofan epter hennar Kinn-Beinum, Þar er eingenn a medal allra hennar Vina, sem hugsvale henne, Aller hennar Naaungar fyrerlyta hana, og eru ordner hennar Ovíner.

3. Juda er hertekenn i Eymd og Þungann Þrældom, hun bygger a medal Heidingianna, og finnur ongva Hviild, Aller hennar Offoknar-Menn hallda hana Illa.

4. Veigerner til Zion liggia i Eyde, af þvi, ad þangad kiemur eingenn upp til neirnrar Haatiidar, Allar hennar Portdyr ſtanda audar, hennar Kiennemenn þeir Andvarpa,

Hennar Meyar eru aumlegar a ad siaa, og hun er Harmþrungenn.

5. Hennar Motstodu-Menn eru upphafner, Hennar Ovinum vegnar vel, þviad DROTTinn hefur fyllt hana med Eymd, fyrer hennar mikellra Synda saker, og hennar Born eru Herteken j burt farenn, fyrer Ovinenum.

6. Oll Prydenn er j burt fra Dotturenne Zion, hennar Hofdingiar eru lijka sem þeir Hrutar ed eckert Foodur finna, og ganga þreytter fyrer þeim ed þa frammrekur.

7. Jerusalem þeinker a þessum Tijma, Hvorsu aumleg og fyrerlitleg hun er, og og hvorsu mikel Audæfe hun hefur haft fra Fyrndenni, med þvi, ad allt hennar Folk ligur þar nidre under Ovinunum, og eingenn er sa sem henne hiaalpar, hennar Oviner siaa sijna Lysting a henne, og spotta hennar Sabbaths Daga.

II. 8. Jerusalem hefur Syndgast, þar fyrer hlytur hun ad vera sem ein Saurug Kvinna, Aller þeir sem hana heidrudu þeir forsmaa hana nu, med þvi ad þeir siaa hennar Vanvirding, Enn hun blæs þungann, og snyr aptur a bak.

9. Hennar Ohreinende þau loda vid Falldenn a hennar Klædum, hun hafde ecke meint, ad þad munde so eiga ad ganga henne ad sijdurstu, henne er so hrædelegana nidur hrunded, og þar med hefur hun ongvann þann sem henne hugsvalar. Æ DRottinn! Lyttu a mijna Eymd, þviad Ovinurenn hann þykest so mikell.

10. Ovinurenn hefur lagt sijna Hond a alla hennar Dijr-Gripe, þviad hun hlaut ad horfa a þad, ad hiner Heidnu geingu jnn j hennar Helgedom, um hvad Þu hefur þo boded, ad þeir skylldu ecke jnnkoma j þijna Samkundu.

11. Allt hennar Folk andvarpar, og leitar sier Fædslu, þeir giefa ut sijn Klenodia fyrer Mat, ad þeir kunne so ad lijfga Saaluna, Æ DROTTinn! Alyt þad, og hygg ad þvi, hvorsu fyrerlitleg eg em ordenn.

12. Ydur sege eg þad, Ollum þeim sem hier framm hiaa ganga, Skoded þad, og hygged ad, Hvort þar er nockur Sorg, so sem mijn Sorg, sem eg hefe j ratad, þviad DROTTinn hefur fyllt mig af Eymd, a þeim Deigenum sinnar Grimmdar-Reide.

13. Hann hefur sendt j mijn Bein eirn Elld ut af Hædunum, og lætur hann geysa, hann hefur sett Net fyrer mijnar Fætur, og hneppt mig so til baka, hann hefur giort mig ad einn Orbæle, so ad eg hlyt Daglegana ad sorga.

14. Mijnar þungar Synder eru uppvaknadar fyrer hans Refsing, og eru j Hoopum komnar yfer minn Hoals, so ad allur minn Mannskapur lijdur j burt, DROTTinn hefur so utreidt mig, þad eg kann ecke upp ad komast.

15. DROTTinn hefur nidur troded alla mijna Ofluga, þa sem eg hafde, hann hefur lꝏted uthroopa eitt Helge-halld yfer mier, til ad fordiarfa mijna Karska Yngesmenn, DROTTinn hann liet Meyarnar Dotturennar Juda troda Vijnþruguna.

16. Þar fyrer græt eg so, og bæde mijn Augu fliota af Vatne, af þvi, ad sa Hugsvalarenn sem endurlijfga skyllde mijna Saalu er mier fiarlægur, Mijn Born eru j burt, þviad Ovinurenn hefur feinged Sigurenn.

17. Zion breider ut sijnar Hendur, og þar er þo eingenn sem hugsvalar henne, þviad DROttinn skipade Ovinum Jacobs j kringum hann, so ad Jerusalem hlaut ad vera a millum þeirra, Lijka sem ein Saurug Kvinna.

18. DROttinn er Riettlaatur, Þviad eg hlydde ecke hans Munne, Heyred þad allt Folk, og hygged ad minne Sorg, mijnar Meyar og Yngis-Menn eru j burt geingner j Herleidingena.

19. Eg kallade a mijna Vine, enn þeir tældu

du mig, Mijner Prestar og Olldungar j Stadnum eru vanmegnader, þviad þeir ganga og bidia sier Brauds, so ad þeir kunne þar med ad endurlijfga sijnar Saaler.

20. Oho DRottinn! Alyttu þo j Hvørre Þreyngingu ad eg er, so ad mier er aumt j Kvidnum þar af, Mitt Hiarta þad slæst um j mijnu Lijfe, þviad eg em miøg Harmþrungenn, Ute þa hefur Sverded, og j Husenu þa hefur Daudenn giort mig til eirnrar Eckiu.

21. Menn heyra þad vel, ad eg andvarpa, og eg hefe þo ongvann Hugsvalara, Aller mijner Ovíner heyra mijna Ogiæfu, og gledia sig, þad giorer Þu, So laat þo þann Dag koma sem Þu ut hroopar, ad þeim skule ganga lijka sem mier.

22. Laat alla þeirra Illsku koma fyrer Þig, og utreid þa, so sem þu hefur utreidt mig, fyrer allra minna Misgiørda Saker, Þviad mijn Andvarpan er mikel, og mitt Hiarta er Harmþrunged!

## II. Capitule.

Jeremias harmar Saargrætelega, af því, ad Gud Drottenn være ordenn so sem Einn Ovinur Gydinga, til Sorgar og Hriggdar, Eins i Andlegre, sem Veralldlegre Stiett.

Hvørnenn hefur DROTTinn yferaused Dotturena Zion med sinne Reide, hann hefur ut kastad Dijrdenne Israels, af Himnum ofann a Jordena, hann hugsade ecke til sinnar Footskarar, a þeim Deigenum sinnar Reide.

2. DROttinn hefur Miskunarlaust afmaad alla Bustadena Jacobs, Hann hefur j sinne Bræde nidur broted allar Festingar Dotturennar Juda, og giort jafnsliettar Jordunne, Hann hefur O-helgad bæde hennar Kongs-Rijke, og hennar Hofdingia.

3. Hann hefur j sundurbroted øll Israels (a) Horn j sinne Grimmdar-Reide, Hann droo sijna Hægre Hønd a Bak vid sig, þa ed Ovinurenn kom, og hefur uppkveikt þann Elld j Jacob, sem eyder umhverfis.

4. Hann hefur upp spennt sinn Boga, sem eirn Ovin, hann hefur leidt sijna Hægre Hønd, sem eirn Mootstødu-Madur, og hefur nidurdreped allt þad sem lystelegt var ad sioa, og utaused sinne Grimmdar-Reide sem Ellde, j Bustadena Dotturennar Zion.

5. DROTTenn er lijka sem eirn Ovinur, hann hefur Israel j Eyde lagt, Hann hefur afmaad øll hennar Herberge, og hefur fordiarfad hennar sterka Kastala, Hann hefur giort Dotturenne Juda miked Kvein og Sorg.

6. Hann hefur um koll kastad sinne Tialldbud, so sem einum Garde, og fordiarfad sinn Bustad, DRottinn hefur laated gleymа bæde Hatijdum, og Sabbaths-Døgum, j Zion, og laated vanvirdast, j sinne Grimmdar-Reide, bæde Konungenn og Kienne-Mannenn.

7. DROTTinn hefur j burt kastad sijnu Alltare, og bølvad sijnum Helgedoome, Hann hefur giefed Murveggena hennar Herbergia j Ovina Hendur, so ad þeir hafa haa-hliodad j Huse DROttins, lijka sem a einum Hatijdar-Deige.

8. DROttinn hefur hugsad ad fordiarfa þa Murveggena Dotturennar Zion, hann hefur dreiged þann Mæle-Streingenn þar ut yfer, og hann snere ecke sinne Hende þadann j fra, fyrr enn hann hafde afmaad hana, Hrundelenn standa saargrætelegana, og Murveggerner þeir liggia hørmuglegana.

9. Hennar Port-Dyr liggia diupt j Jordunne, Hann j sundurbraut hennar Slagbranda, og giorde þa ad øngvu, Hennar Konungur og Hofdingiar eru a medal Heidingianna, þar ed þeir meiga ecke jdka Løgmaaled, og hennar Prophetar hafa øngvar Sioner af DRottne.

10. Þeir Olldungarner Dotturennar Zion liggia a Jordu, og eru (b) kirrer, þeir ausa Mølldar-Dupte yfer Høfud sier, og klæda sig j Seckium, Meyarnar af Jerusalem heingia sijn Høfud til Jardar.

(a) (Horn) Þad er, Kongs-Rijke, hvørt þeir kalla eitt Horn.

(b) (Kirrer) Þad er utglort um þa, þeir eru j burt.

11. Eg hefe so nær utgrꝏted mijn Augu, so ad mitt Lijf þad tekur ad saarna þar af, Mijn Lifur er uthellt a Jordena, yfer Eymdenne Dotturennar mijns Folks, þa ed Brioſt-Mylkingarner og Smꝏ-Børnenn vanmegnuduſt a Strætunum j Stadnum.

12. Þa ed þau ſøgdu til ſinna Mædra, Hvar er Braud og Vijn? þannTijd þau vanmegnuduſt a Strætunum j Stødunum, Lijka ſem ad være þau ſærd til Olijfes, og gꝏfu upp Øndena j Fadme ſinna Mædra.

13. Avi Þu Dotturenn Jeruſalem! Vid hvorn ſkal eg jafna þier? Og fyrer hvorn ſkal eg reikna þig? Þu Jungfruenn Dotturenn Zion! Hvorium ſkal eg ſamlijkia þig? Hvar med ad eg kynne ad Hugſvala þier, Þviad þinn Skade er ſtoor ſem eitt Siꝏfar-Haf, Hvor kann ad græda þig?

14. Þijner Prophetar hafa predikad þier onytar og fꝏvijſlegar Sioner, og hafa ecke opennberad þier þijnar Misgiørder, hvar med þeir hefde mꝏtt fraſnua þinne Herleidingu, helldur þa hafa þeir predikad fyrer þier Lygeſamlegar Predikaner, med hvorium þeir hafa predikad þig ut af Landenu.

15. Aller þeir ſem þar ganga framm hiꝏ klappa Hondum til ſamans, blyſtra ad þier, og ſkaka ſijn Høfud yfer Dotturenne Jeruſalem, Er þad þa Stadurenn af hvorium þeir ſøgdu, ad hann være ſa allra prydelegaſte, af hvorium þad allt Landed gladde ſig?

16. Aller þijner Øviner uppluka ſijnum Munne a moote þier, Blyſtra ad þier, gnijſta Tonnum, og ſegia, Aha! Vier høfum afmꝏad hana, þad er ſa Dagurenn ſem Vier høfum gyrnſt, Vier høfum þad og feinged, og vier høfum þad Lifad.

17. DRottinn hefur frammkvæmt þad, hvad hønum bioo j Sinne, hann hefur fullkomnad ſijn Ord, þau ſem hann hafde fyrer langre Æfe boded, Miſkunarlauſt hefur hann j Eyde lagt, Øvinena hefur hann gladt yfer þier, og upphafed þad Horned þinna Øvina

18. Þeirra Hiarta þad hroopar til DRottins, O þu Murveggurenn Dotturennar Zion! Lꝏttu Tarenn ofann renna Nott og Dag, Lijka ſem annann Læk, Lꝏttu og eige af þvi, og þinn Auga-Steirn linne þvi ecke.

19. Statt upp a Nꝏttarþele, og hroopa, uthell þijnu Hiarta fyrer Augſyn DROTTins, a þeirre Firſtu Vaktenne, ſo ſem Vatne, Hallt upp þijnum Høndum j moote hønum, vegna Sꝏlnanna þinna Ung-Barna, ſem vanmegnuduſt af Hungre, framan a øllum Strætunum.

20. DROTTinn! Siꝏ þad, og hygg ad þvi, hvorn ad þu hefur ſo fordiarfad! Skylldu Kvinnurnar eta Avoxtenn ſijns Kvidar, þau ungu Børnenn Spannarlaung? Skylldu Prophetarner og Preſtarner ſo nidurdrepner verda, j Helgedomenum DROTTins?

21. Þar lꝏu a Strætunum, a Jordunne, Unger og Gamler, mijnar Meyar og Ynges Menn eru falluer fyrer Sverde, hvoria Þu hefur jhelſleiged, a þeim Deigenum þinnar Reide, Þu hefur ſloatrad Vægdarlauſt.

22. Þu kallader mijna Øvine utann umkring mig, ſo ſem a eirn Hꝏtijdar-Dag, So ad eingenn komſt undann, eda vard epter a þeim Reidennar Deige DROTTins, Þa ſem eg hafde foſtrad og uppfædt, þeim hafa Øvinerner fyrerfared.

## III. Capitule.

Jeremias kveinar (I) yfer ſinne Eymd; En (II) Huggar ſig aptur vid Guds Miſkunſeme, og (III) aᴠminner Folked til Jdrunar.

I. Eg er einn Aumur Mann, ſem hlyt ad ſiꝏ Vønd Hans Grimmdar-Reide!

2. Hann leidde mig, og liet mig ganga j Myrkre, og ei j Lioosſe.

3. Hann ſnere ſinne Hende a moote mier, og hann høndlar allt ødruvijſe vid mig allann Dagenn.

4. Hann hefur giørt mitt Hold og Hørund gamallt, og j ſundur broted mijn Bein.

5. Hann byggde j kringum mig, og hefur umvafed mig med Galle og Mædu.

6. Hann

6. Hann hefur lagt mig j Mirkred, so sem hina Daudu j Verølldenne.
7. Hann hefur jnne murad mig, so ad eg kann ecke ut ad koma, og lagde mig j hørd Fiotur.
8. Og enn þo eg kallade og kveinade, þa tilbyrgde hann sijn Eyru fyrer minne Bæn.
9. Hann hefur tilmurad minn Veg, med høggnum Steinum, og umbillt mijnum Stigum.
10. Hann sat um mig sem eitt Biarn-Dyr, Lijka sem annad Leon j Filsnenu.
11. Hann liet mig misfara a Veigenum, hann j sundur skipte mier, og giorde mig ad ongvo.
12. Hann spennte sinn Boga, og sette mig upp til Skot-Maals fyrer Pijsluna.
13. Hann liet skiota af Pijlna-Koffrenu j mijn Nijru.
14. Eg er ein Hædung øllu mijnu Folke, og daglegur þeirra Kvedskapur.
15. Hann sadde mig med Beiskleika, og gaf mier rammar Jurter ad drecka.
16. Hann j sundurmolade mijnar Tennur j smaa Parta, hann vellte mier j Øsku.
17. Mijn Saala er j burt drifenn fra Fridnum, eg hlyt ad forgleyma þvi enu Goda.
18. Eg sagde, Minn Maattur er j burtu, og mijn Von til DROTTins.
19. Hugleid Þu! Hvorsu eg er Aumleg og fyrerlitenn, Dryckiud med Galle og beiskum Jurtum.
20. Þar muntu hugsa uppa, þviad mijn Saala seger mier þad.
21. Eg legg þad uppa Hiartad, þar fyrer vona eg enn nu.
II. 22. Godgyrne DROTTins er þad, ad vier erum ecke Ølldungis Uigiorder, hans Miskunseme hefur enn ongvann Enda.
23. Helldur er hun ny hvorn Morgun, og þinn Truleike er mikell.
24. DROttinn er mitt Hlutskipte, seger mijn Saala, þar fyrer vil eg vona til hans.
25. Þviad DROttinn er gæstsamlegur, vid þaþsem vona uppa hann, og þeim Saalum sem leita ad honum.
26. * Þad er eirn Merkelegur Hlutur, ad vera Þolenmoodur, og vona uppa Hiaalpena DROTTins. * 2 Tim. 2, 12. Ebr. 10, 36. Jac. 1, 12.
27. Þad er Mannenum eirn merkelegur Hlutur ad bera Oked j sijnum Ungdome.
28. So ad Sa sie þolenmoodur sem yfergiefenn er, nær ed nockud yfer hann fellur.
29. Og þad hann stinge sijnum Munne j Molldar-Dupt, og vænte uppa Vonena.
30. Og laate slaa sig so uppa Kinn-Vangann, og þad honum sie mikel Forsmaan til løgd.
31. Þviad DROTTinn burt rekur ecke eylijflegana.
32. Helldur so, Hann hrigger ad vijsu, enn hann tiaaer sijna Miskunseme aptur, epter sinne mikellre Miskun.
33. Þviad hann plaagar, og hrigger Mannenn ecke ut af Hiarta.
34. Lijka sem ad villde hann alla þa Fongudu a Jordunne Ølldungis nidur troda under sijnar Fætur,
35. Og laata eins Manns Riettar-Far beygiast fyrer hinum Allra-Hæsta.
36. Og laata eins Manns Maalefne rangsnuast, lijka sem ad DROTTinn sæe þad ecke.
III. 37. Hver dyrfest þad ad segia, ad slijkt mune skie, aan DROTTins Skipunar?
38. Og þad hvorke Illt nie Gott kome af Munne hins Allra-Hæsta?
39. Þvi mogla þa Mennerner so j Lijfenu? Hvor eirn mogle j mote sinne Synd.
40. Og laatum oss rannsaka og uppleita vora Breytne, og snua oss til DRottins.
41. Laatum oss upplypta vorum Hiørtum, med vorum Høndum, til Guds a Himnum.
42. Vier, Vier høfum syndgast, og vered Ohlyduger, þar fyrer giorder Þu riett, ad Þu hlijsder ecke.

43. Helldur yferhellter Þu og offokter oss med Reide, og deydder oss oan Miskunsemdar.

44. Þu hulder þig med einu Skije, so ad þar kunne eingenn Bæn j giegnum ad koma.

45. *Þu hefur giort oss ad Saur og Ohreinendum a medal Folksins. *1 Cor. 4, 13.

46. Aller vorer Oviner opna sijna Munna a mote oss.

47. Vier nidur þrickiunst og þvingunst med Skielfing og Sorg.

48. Mijn Augu renna med Taara-Lækium, yfer þeirre Eymdenne Dotturennar mijns Folks.

49. Mijn Augu þau fliota, og kunna ecke af ad laata, þviad þar lætur alldrei af.

50. Þangad til ad DROttinn skodar og sier þar til af Himnum.

51. Mitt Auga foreyder mijnu Lijfe j burt, fyrer Saker Dotturennar mijns Stadar.

52. Mijner Oviner elltu mig sem annann Fugl, ad Saklausu.

53. Þeir fyrerkomu mijnum Lijkama j eirnre Grof, og kostudu Steinum a mig.

54. Þeir yfer-jusu og so mitt Hofud med Vatne, þa sagde eg, Nu em eg med ollu j burt.

55. Enn eg kallade a þitt Nafn, DROttinn! nedan ur Gryfiunne.

56. Og þu heyrder mijna Raust. Byrg ecke þijn Eyru fyrer minne Andvarpan, og Hroope.

57. Naalæg þig til mijn, nær ed eg kalla til þijn, og seg þu, Ottast þu ecke!

58. Sæk þu DROTTinn! Sok minnar Saalar, og frelsa mitt Lijf.

59. DROttinn! aalyttu þad Hvor Oriettinde mig skie, og hiaalpa mier til mijns Riettar.

60. Þu sier allar þeirra Hefnder og allar þeirra Hugsaner a mote mier.

61. DROTTinn! Þu heyrer þeirra Forsmaan, og allar þeirra Hugsaner yfer mier.

62. Varernar minna Motstodu-Manna, og þeirra daglega Uppdiktan a mote mier.

63. Siaa þu þo, Hvort ad þeir setiast nidur, eda standa þeir upp, þa kveda þeir Vijsur um mig.

64. DROttinn! umbuna þeim þad, so sem þeir hafa verdskulldad.

65. Laat þeirra Hiarta skielfast, og formerkia þijna Bolvan.

66. Offæk þa med Grimmd, og afmaa þa under Himnenum DROTTins.

## IV. Capitule.

Jeremias (I) kenner Fals-Prophetum og Prestum um Jerusalems Olucku; og (II) Fyrerseger Eydeleg-ging Edomitanna.

1. Hvornenn er þad Gulled so med ollu blackt, og þad skiæra Gulled so liott orded? Og Steinarner Helgedomsins liggia so j sundurdreifder framm a ollum Strætunum.

2. Þau Edla Bornenn Zion, josn virdt vid Gull, Hvornenn eru þau nu samjofnud vid Leir-Pottana, sem Leir-Potta Smidurenn giorer?

3. Drekarner þeir rietta Briostenn ad sijnum Ungum, og giefa þeim ad siuga, Enn Dotturenn mijns Folks hlytur ad vera so (a) miskunarlaus, so sem einn Struts-Fugl a Eydemorku.

(a) (Miskunarlaus) Hun kann ecke ad giefa sijnum Bornum ad siuga, edur annast þaug, Hvad ed þo giora hin allra-grimmustu Dyr, þviad Dyrtijdenn er of-mikel.

4. Tungann Briost-Barnanna toller vid Gomana a þeim af Þorsta, þau Ungu Bornenn beidast Brauds, og þar er eingenn sa sem þeim briote þad.

5. Þeir sem aadur fyrre aatu hid lystelegasta þeir vanmegnast nu a Strætunum, Þeir sem aadur voru klædder j Silke þeir hliota ad liggia nu j Ohreinendum.

6. Sa Misgiorningurenn Dotturennar mijns Folks er stærre enn Synder Sodoma, þeirre sem hastarlega var umturnad, og þar kom eingenn Hond til.

7. Hen-

7. Hennar Nazarei voru hreinne enn Snior, og skiærare enn Miolk, Þeirra Yferlitur var raudare enn Kuriel, þeirra Asiona var lijka sem Saphirus.

8. Enn nu er þeirra Yferlitur. dockur af Sorta, so ad Menn þeckia þa ecke a Strætunum, þeirra Skinn þad loder vid Beinenn, og þeir eru so þurrer sem Trie.

9. Þeim vegnade betur sem drepner voru med Sverdenu, helldur enn þeim sem dou ut af j Hungrenu, þeir sem vanmegnuduſt, og j hel stungner voru, vegna þess Avaxtarleysesins Akurlandanna.

10. Hinar Hiartsꝍaruſtu Kvinnur hlutu sialfar ad sioda sijn Born, so ad þær hefdu nockud ad eta, j þeirre Eymdenne Dotturennar mijns Folks.

11. DROTTinn hefur fullkomnad sijna Reide, hann hefur uthellt sinne Grimmdar-Bræde, hann uppkveikte eirn Elld j Zion, hvor ed foreydde hennar Grundvallan.

12. Konungarner a Jardrijke hefdu þvi ecke truad, eige helldur allt Folked j Verolldunne, þad sa Motſtandarenn, og Ovinurenn skyllde jnferdaſt um Jeruſalems Borgarhlid.

13. Enn þad er skied fyrer Synda saker hennar Propheta, og fyrer Misgiorda saker hennar Presta, sem uthelltu Riettlꝍtra Manna Blode þar jnne.

14. Þeir rꝍfudu hingad og þangad a Strætunum, lijka sem Sionlauser Menn, og voru (b) saurgader med Blode, so ad þeir mꝍttu ecke snerta þau Klædenn hinna añara.

(b) (Saurgader) Þad er, Þeir hofdu uthellt miklu Saklausu Blode.

15. Enn þeir kolludu til þeirra, Vijked fra, Þier hiner Saurugu! Vijked fra, vijked fra, ꝍhræred ecke neitt! Þviad þeir fordudust þa, og flydu fyrer þeim, so ad sagt var, eirnenn a medal Heidingianna, Þeir verda þar ecke leinge.

16. Þar fyrer hefur Reide DROTTins j sundur dreift þeim, og vill ecke meir sioa til þeirra, Af þvi ad þeir ecke j Heidri hefdu Prestana, og giordu ongva Miskunseme vid Ölldungana.

17. Þo goondu samt vor Augu epter þeirre (c) Hiegoma-Hialpenne, þangad til ad þau voru þreytt ordenn, þann Tijd vier vonudum a þad Folked sem oss kunne þo ecke ad hialpa.

(c) (Hiegoma-Hialp) Þad er, Þeir treysta uppa Egyptaland, og uppa Mennena, og fyrerfooru diarflega þeim Godu Spꝍmonnum.

18. Menn elltu oss, so ad vier þordum ecke ad ganga a vorum Vegum, þa kom eirnenn vor Ending, vorer Dagar eru ute, vor Ending er komenn.

19. Vorer Offoknarar voru fliotare enn Ernur under Himnenum, þeir offoktu oss a Fiollunum, og sꝍtu um oss j Eydemorkenne.

20. Sa hinn (d) Smurde DROttins, sem var vort Trauſt, vard Hertekenn, þa þeir foreyddu oss, a hvorium vier hofdum vort Trauſt, ad vier villdum lifa under hans Skugga, a medal Heidingianna.

(d) (Smurde) Vor Kongur, þvi vier ætludum, ad vort Kongsrijke munde j ongvo Fꝍare vera, og budum Trꝍats ollum Heidingium.

II. 21. Ja, Gled þig, og vert Gladvær, Þu Dotturenn Edom! þu sem byr j Landenu Uz, þviad Kaleikurenn skal eirnenn koma yfer þig, þu hlytur eirnenn ad verda Druckenn og nakenn.

22. Enn þu Dotturenn Zion! þinn Misgiorningur hefur eirn Enda, hann mun ei optar lꝍta þig j burt flytia. Enn þijns Misgiornings, þu Dotturenn Edom! mun hann vitia, og openbera so þijna Synd.

## V. Capitule.

Jeremias (I) Harmar yfer Vesolld og Kvolum þess Herleidda Folks; og (II) Bidur, ad þad mætte komaſt aptur heim i sitt Fodurland.

I. Minnſtu þess, DROttinn! hvornenn þad oss veiter, Alyt þu og hygg ad vorre Forsmꝍan.

2. Vor Arfleifd er ordenn þeim Annarlegum ad Hlutskipte, Og vort Hus hinum Utlendsku.

3. Vier erum Fodurlauser, og høfum ongvann Fodur, vorar Mædur eru sem Eckiur.

4. Vort eiged Vatn hliotum vier ad drecka fyrer Peninga, Vorn Vid verda Menn ad lœta sækia Bitaladann.

5. Þeir keira oss framm yfer þverann Hœlsenn, og nær ed vier erum uppgiefner af Mæde þa lœta þeir oss þo ongva Hvijld hafa.

6. Vier høfum orded ad giefa oss under þa j Egyptalande, og j Assyria, so ad vier mættum sadder verda af Braude.

7. Vorer Fedur þeir syndgudu, og þeir eru ecke meir fyrer Hende, og vier hliootum ad giallda þeirra Misgiorninga.

8. Þrælar Drottna yfer oss, og þar er eingenn sem frelsar oss ut af þeirra Hende.

9. Vier hliotum ad sækia vort Braud med vorum Lijfs-Hœska, fyrer Sverdenu a Eydemorkenne.

10. Vort Hørund er forbrennt, so sem j odrum Ofne, af þvi hrædelega Hungrenu.

11. Þeir hafa vanvirdt Kvinnurnar j Zion, og þær Meyatnar j Stødunum Juda.

12. Þeir Høfdingiarner eru heingder af þeim, og þeir hafa ongva Virding giort Personu þeirra Olldrudu.

13. Hiner Ungu Karl-Menn hlutu ad mala Kvarnar-Steinenum, og hiner Smœu ad hrasa under Vidar-Burdenum.

14. Hiner Gømlu sitia ecke leingur j Port-Dyrunum, og hiner Ungu jdka ei meir nein Hlioodsære.

15. Vor Hiartans Glede hefur eirn Enda, vor Dans er umsnuenn j Sorgar-Kvæde.

16. Koronann vors Høfuds er af-fallenn, O Vei! Ad vier høfum so syndgast.

17. Þar fyrer er eirnenn vort Hiarta Harmþrunged, og vor Augu (a) døpur ordenn.

(a) (Døpur) Sionenn glapnar oss, og þad er allt Svart fyrer vorum Augum, af stoorum Eymdum og Plœgum.

18. Fyrer Saker þess Fiallsins Zion, ad þad liggur so j Eyde, so ad Refar hlaupa þar yfer um.

II. 19. Enn þu DROTTinn! sem ert Eylijflegana, og þinn Velldis-Stoll um Alldur og Eylijfu,

20. Hvar fyrer villtu so olldungis forgleyma oss, og med øllu yfergiefa oss so leinge?

21. DROttinn! Leid oss aptur til þijn, so ad vier mættum komast heim aptur, Endurnya vora Daga, lijka sem Fordum Tijd.

22. Þviad Þu hefur kastad oss j burt, og ert ordenn Of-Reidur vidur oss.

Ender Harmagrœtsins Jeremiæ.

# Formœle yfer Book Ezechielis Propheta.

Ezechiel hefur med Kongenum Jechonia, Lijka so sem Daniel, og þeir adrer fleyre, ullinglegana j burt fared j þa Herleidingena til Babylon, epter Rœde og æggian Jeremiæ, hvad hann alla Tijma rœdlagde þeim, ad þeir skyllde giefa sig under Konungenn af Babylon, og þa mundu þeir bijhallda Lijfenu, Og þad þeir skylldu hønum eige neina Mootstødu veita, Ellegar þa mundu þeir afmœder verda. Jerem. 21. Cap.

Enn þa ed þeir voru nu komner j Babylon, so sem þad Jeremias j Tuttugasta og Fiorda Capitula utvijsar, og huggar þa med Miukum Aminningum, Þa took þo samt hiœ þeim ad magnast mikel Oþolennmæde, so þad œngrade þa nærsta miøg, ad þeir høfdu Kongenum til Handa geinged, Med þvi, ad þeir sœu nu, ad þeir hiner somu sem til Jerusalem høfdu epter vered, og ecke høfdu viliad giefa sig, þeir hielldu enn nu Borgenne, og ollu odru, og vonudu so ad giora Jeremiam ad Lygara, og þo ecke ad sijdur ad veria sig, og vernda fyrer Kongenum af Babylon, og so samt j Landenu ad vera.

Hier til hiaalpudu nu af ollu Megne þeir hiner Fol-sku Prophetarner, sem alla Tijma herdtu þa upp til Jerusalem, so sem þad, ad eige skyllde Jerusalem yfer-unnenn verda, Og Jeremias hann munde liuga þad sem annar Falsare og Fordæda. Þa kom þad og eir-nenn upp fyrer þeim (sem vanalegt er) ad þeir j Jerusa-lem tooku ad hroosa sier, og stæra sig af þvi, ad þeir være heidarleger Hreyste-Menn, og þad þeir filgdu be-tur Gude, og þvi Fostur-Landenu, Enn hiner adrer sem j burt hofdu fared, og yfergiefed sinn GUd, og þad Fosturlandeð, sem dygdarlauser Dreinger, þeir ed hvorke hefdu kunnad ad trua nie treysta GUde, hell-dur gaafu sig strax fyrer eins Manns Ord og æeggian, inn til sinna Ovina, sem var fyrer Lausmælgis Saker Jeremiæ, þess Skialarans, og etc. Þad þotte þeim sem j burt voru farner j Babylon, þungt under ad bua, og æaugrade þa nærsta miog, so ad þeim þotte sinn Her-leiding hin herfelegasta. Enn hvorsu marga Forbæn og Blots Yrde þa þeinker þu, ad þeir mune beded hafa Jeremiæ Spaamanne, ad þvors Raadum þeir þotlust so hafa fared, og herfelega umtalder vered.

Fyrer þann Skulld þa uppvekur nu GUd þeim j Ba-bylon þennann Spaamannenn Ezechielem, ad hug-svala þeim, og hreysta þa hinn Herteknu, og til ad spaa j mooti þeim Fals-Prophetum i Jerusalem, og ad stad-festa þau Ordenn Jeremiæ Spaamanns. Hvad hann og eirnenn hid kostgiæfelegasta giorer, so ad hann spaaer miklu hardlegar, og seger fyrer Hvornenn þad Jerusalem skyllde nidur brotenn verda, og þad Folked, ásamt med Kongenum og Lands-Hofdingiunum, ni-dur dreped og ihel sleiged vera, og þad miklu framar enn þad Jeremias sialfur hann giorer. Og kunngio-rer þo þar med, og seger fyrer, þar jafnframmt, þa Heimferdena og Apturkomuna Folksins j Landed Juda. Og þesse er su hin ædsta Grein j Bok Ezechielis, sem hann hefur a sijnum Tijma um Hond haft, og framm-filger so þeirre hinue somu, allt til hins Tuttugasta og Fimmta Cap.

Þar epter uthenur hann eirnenn sijna Spaadoma, uppa oll onnur kringumliggiande Lond, þaug ed eir-nenn skylldu plaagud verda af Kongenum j Babylon, Og þad sama allt til hins Þrijtugasta og Fiorda Cap. Þa epterfilgia þar enn Fiorer Capitular, af Anda og Rijkis-Stiorn Christi, Enn þar epter, af þeim Sij-darsta Yfergangs Vijkinge j Christi Rijke, Gog og Magog. Enn seinast þa upp bygger hann Jerusalem aptur, og hughreyster so þar med Folked, ad þad skule þeim aptur koma j Landed. Enn j Anda þa meinar hann hina Eylijfu Borgena, þa Himnesku Jerusalem, um hvoria j Bookenne Apocalypsi verdur eirnenn talad.

# Prophetenn Ezechiel.

## I. Capitule.

Ezechielis Vitran (I) Mind Fiogra Dyra; (II) Fiogur Hiol; Og (III) Ein uthanenn Himen-Festing

I. A Þvi Þrijtugasta Aarenu, þann Fimmta Dagenn þess Fiorda Maanadar, þa eg var a medal þeirra Herteknu, * vid Vatned Chebar, Op-nadest Himinenn, og GUd vijsade mier Syn.

* Þetta hefur skied fyrer Hingadburd Christi, 572. Fyrer Eydelegging Jerusalem 6. Aa.um.

2. Sa same Fimmte Dagurenn Maana-darens var riett lijka so a þvi Fimmta Aare-nu, epter þad ad Joachim, Konungurenn af Juda, var Hertekenn j burt fluttur.

3. Þa skiede Ord DROttins til Ezechie-lem, Sonar Busi, Prestsins j Chaldea Lande, vid Vatned Chebar, Þar kom Hond DROTTins yfer hann.

4. Og eg saa, og sioa þu! Ad þar kom eirn Storm-Vindur af Nordrenu, med mi-klum Skij-Flooka, fullum af Ellde, so þad leiptrade allt um kring, og midt j þeim sama Elldenum var so sem eitt (a) skiært Lioos.

(a) (Skiært Lioos) Þar stendur j Ebreskunne, So sem Hasmal til ad sioa, Eingenn veit hvad þad er, Vier laatum þad vera, þad hid allra skiærasta j Ellde-num, edur Leiptranenne, sem sinner hallda jafnt vid Speciem Electri, þann Hvita Agat-Stein, og er Meiningenn, J Skijenu var raudur Elldur, j þeim rauda Ellde klaart hvijtt Lioos.

5. Og þar innann j ein Mind, þvilijkast sem Fiogur Dyr, og Mindenn Eins a medal þeirra var sem eins Manns.

6. Og hvort þeirra hafde Fiorar Asionur, og Fiora Vænge.

7. Og

7. Og þeirra Footlegger stoodu rietter, enn þeirra Fætur voru so sem Uxa-Fætur, og Liomudu so sem annad skiært slietta Latun.

8. Og hofdu Manns Hendur under sijnum Vængium, a þeim þeirra Fiorum œttum.

9. Þviad þau hofdu øll Fiogur sijnar Asionur, og sijna Vænge, og þeir sømu Vængerner nœdu hvor til annars. Og nær ed þau geingu, þa þurftu þau ecke ad snua sier, helldur hvørt sem þau geingu, þa geingu þau þad beint sem þau horfdu.

10. Þeirra Asionur, a þeim Fiorum, til Hægre Hlidar, voru lijka sem einn Madur og eitt Leon, Enn a þeim Fiorum, til Vinstre Hlidar, voru þeirra Asionur lijka sem eirn Uxe, og ein Orn.

11. Og þeirra Asionur og Vænger voru ofann til adskilder, so þad Tveir Vængerner stoodu til samans, og med Tveimur Vængiunum huldu þau sijna Lijkame.

12. Og hvørt ed þau geingu þa geingu þau þad beint framm fyrer sig, Enn þau geingu j þa Attena þangad sem Vindurenn stod, Og þurftu ecke ad snua sier vid, nær ed þau geingu.

13. Og Dyrenn voru so œlits ad siœ sem Logande Kol, þau ed brenna, og lijka sem Blis, sem gieck a millum Dyranna. Enn sa Elldurenn gaf eina Birtu af sier, og ut af þeim Elldenum gieck ein Leiptran.

II. 14. Og þaug Dyrenn hlupu hingad og þangad, so sem ein logande Leiptran.

15. Enn sem eg sœ nu so Dyrenn, Siœ þu! Þa stood þar eitt Hiool a Jordunne, j hiœ þeim Fiorum Dyrunum, og þad var so ad siœ sem Fiogur Hiool.

16. Og þau sømu Hioolenn voru lijka sem annar Turkous, og oll þau Fiogur voru eitt ødru lijkt, og þau voru so a ad lyta lijka sem þad hvørt Hiooled være jnnann j ødru.

17. Nær ed þaug skylldu af Stad ganga, þa kunnu þau ad ganga j allar Fiorar œtter-nar, og þau þurftu ecke ad snua sier vid, þa ed þau geingu,

18. Rendurnar og þeirra Hæd voru hræ-delegar, og so þeirra Rander voru fullar med Augu allt um kring, a ollum þeim Fiorum Hioolunum.

19. Og nær ed þau Dyrenn geingu, þa geingu og eirnenn Hioolenn hiœ þeim, Og nær ed Dyrenn loptudu sier fra Jordunne, þa loptudu sier og eirnenn Hioolenn.

20. Hvadann sem Vindurenn stood a, þa-dann geingu þau og eirnenn, og Hioolenn lop-tudu sier upp hiœ þeim, þviad þad var eirn Lifande Vindur j Hioolunum.

21. Nær ed þau geingu þa geingu og eir-nenn þesse, nær ed þau stoodu þa stoodu og eirnenn þesse. Og nær ed þau loptudu sier upp fra Jordunne þa loptudu sier og eirnenn Hioolenn hiœ þeim, þviad þar var eirn Lifan-de Vindur j Hioolunum.

III. 22. Enn fyrer ofann Dyrenn, var þvi lijkast sem Himenenn være so sem Ognarlegur Crystallus, ut breiddur midt yfer þeim.

23. So ad þeirra Vænger stodu under Himnenum, hvørier a moote ødrum, og Tveir Vængerner skyldu hvørs þeirra Lij-kama.

24. Og eg heyrde Vængianna Þyt, lijka sem mikels Vatnsfalls, og so sem Gny hins Almœttuga, nær ed þau geingu, og so sem eitt stoort Bulldur j einum Her. Enn nær þau stoodu kirr þa lietu þau Vængena nidur.

25. Og nær ed þau stoodu kirr, og lietu Vængena so nidur, þa liostudu þar Reidar-Þrumur j Himnenum uppe yfer þeim.

26. Og upp yfer þeim Himnenum, sem yfer þeim var, þa var so ad lyta sem annar Saphi-rus, lijka sem eirn Velldis-Stooll, þar sat eirn a þeim sama Stoole, so œlits sem Madur.

27. Og eg sœ, ad þad var eins sem eitt skiært Lioos, og þad var jnnann allt umkring so ad lyta sem Elldur, Upp fra hans Lendum, og ofann j fra, sœ eg, ad þad lyste sem Elldur allt j kringum hann.

28. Lijka so sem þad Regn-Bogenn er œ-lits j Skijunum, nær ed Dogg hefur vered, eins so lyste þad allt um kring. Þesse var Sio-nenn þeirrar Dijrdarennar DROTTins.

Og þa ed eg hafde þad sied fiell eg framm a mijna Asionu, og eg heyrde Eirn tala.

## II. Capitule.

Ezechiel er (I) kalladur til sijns Spaamannlega Embættes; Og (II) ser, i Einne uttrettre Hønd, Eitt Samanbroted Bref, sem hann hlaut ad eta, epter Guds Skipan.

I. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Statt uppa þijnar Fætur, þa vil Eg tala vid þig.

2. Og þa hann talade so vid mig, þa lifnade eg vid aptur, og stod uppa mijnar Fætur, og hlydde honum sem talade vid mig.

3. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Eg sende þig til Israels Barna, til þess Frafnuna Lydsins, sem Mier er fraborfenn ordenn, þeir, og þeirra Forfedur, hafa giort Mier j moote, allt til þessa Dags.

4. Enn þau Børn, til hvorra ad Eg sende þig, hafa hord Høfud, og forhordnud Hiortu, Þu skallt segia til þeirra, So seger DROTTinn DROTTinn.

5. Hvort helldur þeir hlijda þvi eda ecke, Þad er eitt ohlydugt Hus, þa skulu þeir þo samt vita, ad þar er Spaamadur a medal þeirra.

6. Og þu Mannsins Son! skallt ei hrædast þa, og ecke ottast þeirra Ord. Þeir eru Andvijger, og hvasser Þyrnar hia þier, og þu byr a medal Scorpiona, Enn þu skallt ecke hrædast fyrer þeirra Ordum, og eige helldur ottast fyrer þeirra Til-lite, þo ad þeir sieu samt eitt ohlydugt Hus.

7. Helldur skalltu segia þeim mijn Ord, hvort helldur ad þeir hlyda þeim edur eige. Þviad þad er eitt ohlydugt Folk.

8. Enn þu Mannsins Son! Heyrdu hvad Eg seg þier, og vert ecke ohlydugur, so sem þad hid ohlyduga Hused er. Luk þijnum Munne upp, og et þad hvad eg mun giefa þier.

II. 9. Og Eg sa, Og sia þu! Þar var ein Hønd utriett a moote mier, sem hafde eitt Samanbroted Bref.

10. Þad ut breidde hann fyrer mier, og þad var skrifad utann og jnnann, og þar jnne stood Harmaklogun, Ach og Eymdar Vei.

11. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Et þu þad sem fyrer þier er, sem er þetta Bref, og gack so j burt, og predika fyrer Israels Huse.

12. Þa upplauk eg mijnum Munne, og hann gaf mier þad Brefed ad eta.

13. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son skallt eta þetta Bref, sem eg gief þier j þinn Kvid, og fylla þinn Kvid þar med. Þa at eg þad, og þad var so sætt j mijnum Munne sem Hunang.

14. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Gack burt til Israels Huss, og predika þeim Mijn Ord.

15. Þvi Eg sende þig ecke til þess Folks sem framande Maal hefur, og eitt okunnugt Tungutæke, Helldur til Hussens Israels.

16. Jaa, Vissulega, Ecke til þess mikla Muga-Folksins, sem hefur annarlegt Maal, og osskilianlegt Tungutæke, hvorra Ord ad þu skilur ecke. Og þo ad so være, ad Eg sende þig enn til þeirra, þa munu þeir þo giarnann heyra þier.

17. Enn Israels Hus vill ecke heyra þier, Þviad þeir vilia ecke heyra sialfum Mier. Þviad giervallt Israels Hus hefur hord Enne, og hardudug Hiortu.

18. Enn þo hefe Eg giort þitt Andlit hardt j giegn þeirra Andlite, og þitt Enne j giegn þeirra Ennum.

19. Jaa, Eg hefe giort þitt Enne so hardt sem eirn Adamas, hvor ed hardare er enn Klettur. Þar fyrer ottast þu ecke, og vert eige hræddur vid þa, þo ad þeir sieu soddann eitt ohlydugt Hus.

## III. Capitule.

Ezechiel (I) heyrer Einn Nid og Buldran; Og (II) Ser ad nyu Dijrd Drottens, so ad hann skelfest.

I. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Høndla oll mijn Ord j þijnu

Hiarta, og laat þier j Eyrum loda hvad Eg se-ge þier.

2. Og gack burt til þeirra Herteknu þijns Folks, og predika fyrer þeim, og segdu til þeirra, So seger DROTTinn DROTTinn, hvort helldur ad þeir heyra þad eda eige.

3. Og einn Vindur took mig upp, og eg heyrde a bak mier aptur einn Gny, so sem eins mikels Jardskialfta (Lofud sie Dijrdenn DROttins j sijnum Stad !)

4. Og þar var einn Nidur af Vængium Dyranna, þeirra sem numu til samans, og Bulldran Hioolanna, sem voru þar hardt nær-re þeim, og Gnyr eins mikels Jardskialfta.

5. Pa took Vindurenn mig upp, og flutte mig j burt. Og eg for þangad, og var miog hræddur, Enn Hond DRottins hiellt mier fast.

6. Og eg kom til þeirra Herteknu, sem biuggu hia Vatnenu Chebar, þa ed Man-delenn stoodu j Abib Maanade, og eg sette mig nidur hia þeim sem þar saatu, Og eg var þar a medal þeirra miog hriggur, j Sio Daga.

7. Og er þeir Sio Dagar voru umlid-ner, þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde.

8. Þu Mannsins Son! Eg hefe sett þig til eins Vardhallds-Manns yfer Israels Hus, þu skallt heyra Orded af mijnum Munne, Og vara þa vid minna vegna.

9. Nær ed Eg sege til hins Ogudlega, Þu skallt Dauda deya! Og þu varar hann ei vid, og seger honum þad ecke, so ad sa hinn Ogudlege kunne ad vakta sig fyrer sijnu O-gudlegu Athæfe, so ad hann meige Lijfe hall-da, þa mun hinn Ogudlege deya fyrer sinna Synda saker, Enn hans Bloods mun Eg krefia af þinne Hende.

10. Enn varer þu hinn Ogudlega vid, og hann snyr sier ecke j burt fra sijnu Ogud-legu Athæfe og Veige, þa mun hann deya fyrer sinna Synda saker, enn þijna Saal he-fur þu frelsad.

11. Og nær ed eirn Riettlaatur snyr sier j burt fra sijnu Riettlæte, og giorer Ranglega, þa vil Eg laata hann reka sig þar a, so ad hann deye, þviad med þvi þu hefur ecke varad hann vid, þa mun-hann deya fyrer sinna Synda saker, og hans Riettvijse, sem hann hefur giort, mun ei aalitenn vera, enn Eg mun krefia hans Bloods af þinne Hende.

12. Enn ef þu varar hinn Riettlaata vid, ad hann skule ecke syndgast, og hann syndgast og eirnenn ecke, þa skal hann lifa, þviad hann liet vara sig vid, og þu hefur frelsad þijna Saal.

II. 13. Og Hond DROTTins kom þar yfer mig, og hann sagde til mijn, Rijs upp! og gack ut a Sliettlended, þar vil Eg tala vid þig.

14. Og eg bioo mig til, og gieck ut a Sliettlended. Og sia þu! ad þar stood Dijrdenn DROTTins, eins lijka sem eg saa hia Vatnenu Chebar, Og eg fiell nidur a mijna Asionu.

15. Og eg vard endurnærdur, og stood uppa mijnar Fætur, og hann talade vid mig, og sagde til mijn, Gack þu burt, og lyk þig jnne j þijnu Huse.

16. Og þu Mannsins Son, Sia þu! Menn munu leggia Bond a þig, og binda þig þar med, so ad þu skuler ecke hlaupast um.

17. Og þijna Tungu vil Eg laata tolla vid Gomenn a þier, so ad þu skallt Maallaus vera, og gieta eige leingur funded ad vid þa, þviad þad er eitt Ohlydugt Hus.

18. Enn nær Eg tala vid þig, þa vil Eg uppluka þijnum Munne, so ad þu skallt segia til þeirra, So seger DROttinn DROttinn, Hvor hann heyrer, sa heyre þad, hvor hann skeyter þar ecke um, sa skeyte þvi ecke, þviad þad er eitt Ohlydugt Hus.

IV. Ca-

## IV. Capitule.

Ezechiel (I) maalar Jerusalems Hersetu a Einum Tijgul-Steine, og (II) med sinne Fædu gefur Hungur til Vitundar j Borgenne.

I. Og þu Mannsins Son! Tak þu eirn Tijgul-Stein, og legg hann framm fyrer þig, og maala þar uppa Borgena Jerusalem.

2. Og gior þar Herbuder utan um kring, og gior þar eitt Hervirke j kringum, og graf þar eirn Virkes-Vegg j kringum, og skipa þar Fylkingum utan um kring, og set þar (a) Hruta alla vega j kringum hana.

(a) (Hruta) Þad voru j firstunne Arietes, med hvorium Menn rifu Mur nidur.

3. Enn þu tak þier eina Jarn-Ponnu, og laat þad vera einn Jarn-Mur a millum þijn og Borgarennar, og hef þitt Andlit upp a moote henne, og sit um hana. Þad sama skal vera eitt Teikn Jsraels Huse.

4. Þu skallt og leggia þig a þijna hina Vinstre Hlid, og leggia þar uppa Misgiorninga Hussens Jsraels, so marga Daga sem þu liggur þar uppa, so leinge skalltu bera þeirra Misgiorder.

5. Enn Eg vil giora þier Aarenn þeirra Misgiorninga ad Daga-Tolu, Sem eru Þriuhundrud og Nijutijger Dagar, so leinge þa skalltu bera þær Misgiordernar Hußins Jsraels.

6. Og nær ed þu hefur þad fullkomnad þa skalltu liggia a hina Hægre Hlid, og þu skallt bera Misgiordernar Hussens Juda j Fiorutijge Daga, þviad Eg gief þier hier og eirnenn eirn Dag fyrer eitt Aar.

7. Og venda þijnu Andlite, og þijnum berum Armlegg, j giegn þeirre umsetenne Jerusalem, og spaadu a mote henne.

8. Og sia þu! Eg vil leggia Bond a þig, so ad þu skallt ecke kunna ad snua þier fra eirnre Hlidenne til annarar, allt þangad til ad þu hefur fullkomnad þijna Umsaaturs Daga.

II. 9. So tak nu til þijn Hveite, Bygg, Bauner, Grion, Hirsgrion, og Rugmiol, og legg þetta allt samann j eitt Kier, og gior þier so morg Braud þar af, sem þu skallt liggia Dagana til a þijna Hlid, so ad þu hafer til Fædu af þeim j Þriu Hundrud og Nijutijge Daga.

10. So ad þinn Matur skal vera Tuttugu Sekel ad Þyngd, sem þu skallt hvorn Dag eta. So mikels skalltu neyta j fra þeim einum Tijmanum til annars.

11. Þu skallt og drecka Vatn epter Skamte, sem er hinu Siotta Part ut af Hin, og þad skalltu og eirnenn drecka fra einum Tijmanum til annars.

12. Bygg-Koku skalltu eta, þa sem þu skallt steikia fyrer þeirra Augum, vid (b) Manna-Þreck.

(b) (Manna-Þreck) Þad er, Hann skylde sioda vid sodnan Tad, eins sem Menn stundum siooda vid Torf og Kua-Tad, enn Maturenn vill lycta af slijkum Ellde, So skylldu þeir og so koma j þvilijka Neyd og Hungur, ad þeir skylldu hvorke hafa goodann Elld nie Braud.

13. Og DROTTinn sagde, Lijka so skulu Jsraels Born eta sitt saurugt Braud a medal Heidingianna, til hvorra Eg hefe j burt reked þa.

14. Enn eg sagde, O DROTTinn DROTTinn! Sia þu, Mijn Saala er enn nu ecke saurug ordenn, þviad j fra Barndome mijnum, allt til þessa Dags, þa hef eg ecke neitt Hræ edur sundur rifed eted, og alldrei þa hefur þar enn neitt saurugt Kiot komed j minn Munn.

15. Þa sagde hann til mijn, Sia þu! Eg vil leyfa þier ad þu taker Nauta-Tad fyrer Manna-Þreck, og giora þitt Braud þar vid.

16. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Sia þu, Eg vil burt taka Nægtena Braudsins j Jerusalem, so ad þeir skulu eta Braud epter Vigt, og med Eymdar-

Neyd, og drecka Vatned af Skammte, og med Eymdar-Neyd.

17. Af þvi, ad þar skal þriota bæde Braud og Vatn, og hvor skal harma med ødrum, og vanmegnast so i sijnum Misgiorningum.

## V. Capitule.

Ezechiel vill med Skurde sins Haars og Skeggs, samt Skipte þar a, syna Hverslu aumkvunarlega yde[…] astodt i Jerusalem, þa hun skyllde umgyrdast med Herskyllde.

Og þu Mannsins Son! Tak þu eitt Sverd, þad sem er so hvaßt sem eirn Haar-Knijfur, og drag þad yfer þitt Hofud og Skiegg, og tak sijdann eina Meta-Skaal, og j sundur skipt þvi so þar med.

2. Þann eirn Pridiungenn skalltu uppbrenna med Ellde, midt j Stadnum, nær ed þeir Umsaaturs Dagarner eru ute. Tak þann annann Pridiungenn, og sla þu hann allt um kring med Sverdenu. Þann seinasta þridiungenn skalltu utdrijfa j Vindenn, so þad Eg skule ryckia ut Sverdenu epter þeim.

3. Enn þu tak nockud lijted ut af þvi, og bitt þad j Kaapublad þitt.

4. Og tak þu sijdan nockud ut af þvi, og kasta þvi ut a Elldenn, og uppbrenn þad med Ellde, þar ut af skal koma eirn Elldur yfer allt Israels Hus.

5. So seger DROttinn DROttinn, Þad er Jerusalem sem Eg hefe sett a medal Heidingianna, og þad Landed allt umkring hana.

6. Enn hun umskipte mijnu Logmaale j Ogudlega Lærdoma, meir enn Heidingiarner, og mijnum Riettindum, meir enn þau Londen sem þar liggia allt um kring hana. Þvi þeir burt kasta mijnu Logmaale, og vilia ecke lifa epter mijnum Riettindum.

7. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn so, First ad þier giored þad frekara en Heidingiarner, sem eru j kringum ydur, og lifed ecke epter mijnum Bodordum, og giored ecke epter mijnum Riettindum, helldur breyted þier epter Sidveniu Heidingianna, þeirra sem eru j kringum ydur.

8. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn so. Sioa þu! Eg vil til vid þig og so, Eg vil og laata ganga Riettenn yfer þig, so ad Heidingiarner skulu sioa uppa.

9. Og Eg vil so hondla vid þig, sem Eg enn alldrei giorde, og ecke hiedann j fraa giora mun, fyrer allra þinna Svijvirdinga saker.

10, So ad j þier skulu Forelldrarner eta sijn eigenn Born, og Bornenn sijna Forelldra, og Eg vil laata soddann Riettarfar ganga yfer þig, ad aller þeir sem epter lifa af þier, þa skulu utdreifast j alla Vinda.

11. Þar fyrer, So Sannarlega sem Eg life, seger DROTTinn DROTTinn, Af þvi, ad þu hefur saurgad Minn Helgedom, med allshaattudum Svijvirdingum og Afgudum. fyrer þad vil Eg og sundur sla þig, og Mitt Auga skal ecke vægia þier, og Eg vil ecke Naadugur vera þier.

12. Pridiungurenn af þier skal deya j Drepsott, og af Hungre ad øngvu verda, og sa annar Pridiungur skal falla fyrer Sverde allt j kring þig, Og þann hinn sijdarsta Pridiungenn vil Eg j sundur dreifa j alla Vinda, og Sverdenu utryckia epter þeim.

13. So skal mijn Reide fullkomnast, og mijn Heiptar-Grimmd frammkvæmast yfer þeim, ad Eg kunne so ad hefna Mijn, og þeir skulu fornema þad, ad Eg DROTTinn hefe talad þetta j Minne Vandlætingu, nær ed Eg hefe frammkvæmt Mijna Grimmd vidur þa.

14. Eg vil setia þig til eins Eyde-Bools, og til Forsmaanar fyrer Heidingiunum, sem eru j kringum þig, fyrer allra þeirra Augsyn sem þar ganga framm hiaa.

15. Og þu skallt verda ein Haadung, Forsmaan, Epterdæme og Forundran, fyrer øllum þeim Heidingiunum sem eru j kringum þig, þa

þa nær ad Eg læt Ræiettenn ganga yfer þig med Reide, Grimmd og Straffe (Eg DRottinn sege þad.)

16. Og nær ed Eg skyt þeim Hungursins Meinsemdar Skeytum til þeirra, sem skadsamleg skulu vera, og Eg skyt þeim ut, Ydur til Fordiorfunar, og læt so Hungred alltiafnt magnast yfer ydur, og j burt svipte Rægdfenne Braudsins.

17. Jaa, Eg vil senda Hungur og grimm Villudyr a medal ydar, þau ed ydur skulu giora Barnlausa, og þar skal ganga Drepsott og Blood a medal þijn, og Eg vil leida Sverded yfer þig, Eg DROTTinn hefe þetta talad.

## VI. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Foreydslu Gydinga Lands; (II) Um Apturhvarf nockra Herleiddra Gydinga; En (III) seger fyrer vijst, med nockrum Sorgar Latum, ad Landed ætte ad fordiarfast.

I. Og Ord DRottins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Snu þijnu Auglite j giegn Fiollunum Jsraels, og spaadu a moote þeim.

3. Og segdu, Þier Jsraels Fioll! Heyred Ord DRottins DROttins, So seger DROTTinn DROTTinn, bæde til Fiallanna og Hædanna, bæde til Lækianna og Dalanna, Sia þu! Eg vil innflytia Sverded yfer ydur, og foreyda so ydar Hædum.

4. So ad ydar Ollturu skulu j Eyde leggiast, og ydar Afguder j sundur brotner verda. Og Eg vil laata jhel slaa ydar Lijkame fyrer Lijkneskiunum.

5. Jaa, Eg vil fella Lijkame Jsraels Barna, fyrer ydrum Lijkneskium, Og Eg vil j sundurdreifa ydar Beinum j kringum ydar Olltoru.

6. Hvar ed þier bued, þar skulu Stader ner j Eyde verda, og þær Hædernar ad Obyggdum. Þviad þeir munu ydar Olltorum foreyda, og eydeleggia, og j sundur briota ydar Afgude, og ad ongvu giora þa, og j sundur slaa ydar Lijkneskiur, og ydar Stiptaner afmaa.

7. Og hiner jhelslegnu skulu liggia þar a medal ydar, so ad þier skulud finna þad, ad Eg sie DROTTinn.

II. 8. Enn nockra vil Eg laata epter verda af ydur, sem undann Sverdenu skulu komast, a medal Heidingiánna, þa ad Eg hefe nu j sundur dreift ydur j Londunum.

9. Þeir hiner somu, sem epter eru vordner af ydur, munu hugsa til Mijn, a medal Þiodanna, þar sem þeir hliota Hertekner ad vera, þa ad Eg hefe j sundur sleiged þeirra Hooru-Hiarta, sem j burt viku fra Mier, og þeirra Hooru-Augu, sem styngdu epter sijnum Skurgodum, Og þeir skulu jdrast sinnar Jllsku, sem þeir hafa framed, med allshaattudum Svijvirdingum.

10. Og þeir skulu fornema þad, ad Eg er DROTTinn, og hefe þad ecke til forgiefins talad, ad giora þeim soddann Ogiæfu.

III. 11. So seger DROTTinn DROTTinn, Sla þu þijnum Hondum saman, og stappa þijnum Footum nidur, og seg, Vei yfer ollum Svijvirdingum Jllskunnar j Huse Jsraels! Þar fyrer skulu þeir falla fyrer Sverde, Hungre og Drepsott.

12. Hann hvor ad fiarlægur er skal deya af Drepsott, og hinn sem naalægur er skal falla fyrer Sverde, Enn hann hvor ed epter er ordenn, og er þar fra verndadur, skal deya af Hungre. So vil Eg nu fullkomna mijna Grimmdar-Reide a medal þeirra.

13. So ad þier skulud finna þad, ad Eg er DROTTinn, nær ed hiner jhelslegnu utaf þeim liggia þar, a medal þeirra Afguda, allt um kring þeirra Ollturu, a ollum Hædum, og a ollum Fiollum, og under ollum Grænum Triaam, og under ollum þieckvum Eykum, j hvorium Stodum þeir færdu sijnar jlmandi Foorner, fyrer allskins Skurgodum.

14. Eg vil utrietta mijna Hond a moote þeim, og giora Landed tomt og j Eyde, j fra þeirre Eydemorkenne allt til Diblath, hvar ed

þeir bua, Og þeir skulu finna þad ad Eg er DRottinn.

## VII. Capitule.

Ezechiel bodar Gydingum so Storkostlega Olucku, ad þeir skylldu hvorke faa Fulltijnge hiaa Gude, ne helldur Hiaalp fra Mønnum.

OG Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! So seger DRottinn DROttinn, af Landenu Israel, Endenn kiemur, Sa Endenn yfer allar Fiorar Alfur Landsins.

3. Nu kiemur Endenn yfer þig, Þviad Eg vil utsenda mijna Reide yfer þig, og Eg mun dæma þig, epter þvi sem þu hefur forþienad til, og Eg vil giefa þier hvad øllum þijnum Svijvirdingum heyrer.

4. Mitt Auga skal ecke spara þig, nie vægia þier, helldur vil Eg giefa þier epter þvi sem þu hefur forþienad til, og þijnar Svijvirdingar skulu hiaa þier nidur koma, so ad þier skulud fornema ad Eg er DROTTinn.

5. So seger DROTTinn DROTTinn, Sioa þu! Ein Ogiæfann kiemur epter adra.

6. Endenn kiemur, Sa Enderenn kiemur, Hann er vaknadur yfer þier, Sioa þu! Hann kiemur.

7. Hann geingur upp nu þegar, og brytst framm yfer þig, þu Landsins Innbyggiare! Tijdenn kiemur, Sa Hormungar Dagurenn er j Noand, so ad þar mun eingenn Saungur a Fiøllunum vera.

8. Snarlega þa vil Eg nu uthella minne Heiptar-Bræde yfer þig, og fullkomna so mijna Reide a þier, og Eg vil dæma þig, epter þvi sem þu hefur forþienad, og giefa þier þad sem øllum þijnum Svijvirdingum heyrer.

9. Mitt Auga skal ecke hlijfa þier, og Eg vil ecke Liiknsamur vera, Helldur skal Eg giefa þier so sem þu hefur forþienad, og þijnar Svijvirdingar skulu nidurkoma a medal þijn, So ad þier skulud fornema þad Eg sie DROTTinn, sem slær ydur.

10. Sioa þu Dagurenn! Sioa þu! Hann kiemur hingad, hann brytst framm, Vøndurenn (a) Blomgast, og sa hinn Stollte hann Grænkast.

(a) (Blomgast) Þad er, Hann er til reidu, hønum luckast þad, og er talad um Kongenn af Babylon.

11. Tyrannenn hefur reidubued sig til Vandar, yfer hinum Ogudlegu, so ad eingenn af þeim, edur af þeirra Folke, nie af þeirra Flocke, skal nockud Traust hafa.

12. Þar fyrer kiemur sa Tijmenn, og sa Dagurenn tekur ad naalægiast. Hann hvor ed kauper glediest ecke, og hinn sa ed selur sorge ecke, Þvi Reidenn mun koma yfer allann hennar Mann-Flock.

13. Þar fyrer skal hann sa sem selur ecke hugsa epter sijnum utløgdum Fiemunum, þviad sa sem þa lifer hann skal bijhallda þvi. Þviad Spaadomurenn, yfer øllum hennar Mann-Fiølda, skal ecke til baka ganga, eingenn skal sijnu Lijfe bijhallda, fyrer sinna Misgiørda Saker.

14. Laated þa blaasa j Herludrana, og tilbua alla Hlute, þo mun þar eingenn utfara til Bardagans. Þviad mijn Grimmd geingur yfer allann þeirra Mann-Flock.

15. Sverded geysar a Strætunum, Drepsottenn og Hungred þad geingur j Husunum. Hann sem er a Akrenum, skal deya fyrer Sverdenu, og hvor sem ad er j Stadnum, þann skal Drepsottenn og Hungred upp svelgia.

16. Og hvor ed undann gietur flued af þeim sa mun a Fiøllum vera, og so sem Dufur j Dølunum, þær sem allar krytia sijn a mille, hvor sem eirn fyrer sinna Misgiørda Saker.

17. Allra Hendur skulu nidur sijga, og øll Knie skulu so ostødug standa sem Vatn.

18. Og þeir munu umgyrda sig Seckium, og yferausast med Hrædslu, og øll Andlit skulu hriggeleg ad sioa, og allra Høfud skulu skollott verda.

19. Þeir munu utkasta sijnu Silfre a Goturnar, og akta sitt Gull sem Ohreinende, þviad

þviad þeirra Silfur og Gull mun ecke frelsa þa a þeim Reidennar Deige DROttins. Og þeir skulu þo ecke sedia sijnar Saaler þar med, og ecke fylla sinn Kvid þar af, Þviad þad var þeim ein Hneixlan til sinna Misgiorda.

20. Þeir giordu af sijnum Edla Dyr-Gripum, sem þeir skortudu med, Lijkneskiur sinna Svijvirdinga og Skurgoda, Þar fyrer þa vil Eg giora þeim þad sama ad Ohreinendum.

21. Og Eg vil giefa þad j Okunnugra Hendur, so ad þeir skulu ræna þvi, og til Hlut-Skiptis þeim Ogudlegu a Jordu, so ad þeir skulu saurga þad.

22. Eg vil snua mijnu Andlite j burt þadann, so ad þeir skulu saurga mijna Fiaarsiodu, Ja, Ræningiar skulu koma þar yfer, og saurga þad.

23. Gior þu Vidiur, þviad Landed er fullt med Blood-Skulld, og Stadurenn fullur af Mot-þrooa.

24. So mun Eg laata koma þa hinu Verstu a medal Heidingianna, so ad þeir skulu eignast þeirra Hus, og Eg vil giora eirn Enda a þvi Dramblætenu hinna Volldugu, og saurga þeirra Kyrkiur.

25. Forendislu-Madurenn kiemur, Þa munu þeir leita Fridarens, og hann mun eige þar vera.

26. Eitt Slised mun koma epter Annad, og ein Tijdendenn epter ønnur, Þa munu þeir spyria ad einne Sioon hia Prophetunum, enn þar mun hvorke vera Logmaal hia Prestunum, nie Raad hia Olldungunum.

27. Kongurenn mun hriggur vera, og Hofdingiarner munu j Sorgar-Buninge klæder, og Folksins Hendur j Landenu munu duglausar vera, Eg vil Hondla vid þa so sem ad þeir hafa lifad til, og Eg vil dæma þa, sem þeir hafa verdskulldad, so ad þeir skulu fornema þad ad Eg er DROTTinn.

## VIII. Capitule.

Ezechiel er (I) færdur burt til Jerusalem, hvar hann saa mikla Afguda-Dijrdkun, (II) medal Folksins, (III) Levitanna, og (IV) Prestanna.

I. Og þad skiede so, a þvi Siotta Aarenu, þann Fimmta Dagenn j þeim Siotta Maanudenum, ad Eg sat j mijnu Huse, og Olldungarner af Juda saatu fyrer mier, Þar fiell Hond DROTTins DROttins yfer mig.

2. Og sia þu! Ad eg saa þad sem var under hans Lendum, þad var lijka sem eirn Elldur. Enn fyrer ofann hans Lendar var þad sem skijnande Geislar.

3. Og Hann utriette lijka sem eina Hond, og took j Haared a mijnu Hofde. Þa flutte eirn Vindur mig a millum Himens og Jardar, og flutte mig til Jerusalem, j eirnre Guds Syn, til þeirra innre Dyranna, sem standa j moote Nordrenu, þar ed sat ein Lijkneskia til Strijds vid (a) Hus-Herrann.

(a) (Hus-Herrann) Gud var Hus-Herra j Jerusalem, enn þeir lietu ønnur Skurgod þar inn, þad mislijkade Honum, og þad med Riettu.

II. 4. Og sia þu! Ad þar var Dijrdenn Guds Israels, so sem ad eg hafde sied hana aadur a Akrenum.

5. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! upplyft þijnum Augum a moote Nordrenu, Og þa ed eg upplyfte mijnum Augum j moote Nordrenu, Sia þu! Þa sat þar giegnt Nordrenu þad Ohræka-Lijknesked, hia Port-Dyronum Alltaresins, riett þar sem inn er geinged.

6. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Sier þu eirnenn hvad þesser þeir giora? Sem er þa miklu Svijvirdingena, sem Hused Israel giorer hier, ad þeir drijfa Mig langt j burt fra mijnum Helgedoome, Enn þu skallt enn sia miklu stærre Svijvirdingar.

III. 7. Og hann flutte mig ad Dyrum Forgardsins, þar saa eg, Og sia þu! ad þar var ein Hola inn j Veggenn.

8. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Graf þu inn j giegnum Veggenn,

Og þa eg grof j giegnum Veggenn, Sioa þu! þa voru þar einar Dyr.

9. Og hann sagde til mijn, Gacktu þar jnn, og skoda þær Vondar Svijvirdingar sem þeir fremia hier.

10. Og sem eg kom þangad jnn, og skodade, Sioa þu! þa voru þar allskins Lijknesk iur, Orma og Dyra, og ecke utan Andstyggder, og allskins Afguder Hussens Israels voru alla vegana um kring giorder a Veggiunum.

11. Framme fyrer hvorium ad stodu Siotijger Menn, af Olldungunum Hussens Israels, og Jasania, Saphans Son, stood eirnenn a mille þeirra, og hvor af þeim hafde sitt Reykelsis Kier j Hende, og þar gieck upp ein þick Þoka af Reykelsenu.

12. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Sier þu hvad Olldungarner Hussens Israels þeir giora j Myrkrenu, hvor j sijnu prydelega Herberge? Þviad þeir segia, DROttinn hann sier oss ecke, helldur hefur DROTTinn yfergiefed Landed.

13. Og hann sagde til mijn, Þu skallt enn nu sioa miklu stærre Svijvirdingar, sem þeir giora.

IV. 14. Og hann leidde mig jnn til þeirra Dyranna j Hus DROTTins, sem stoodu j moot Nordrenu, og Sioa þu! Þar sootu Konur sem grietu yfer (b) Thamus.

(b) (Thamus) Hefur vered Afgud Adonis, um hvørn Skalldenn og Heidingiar hafa margt skrifad, og hann hefur vered Unnuste Fru Veneris, þar fyrer kveina Kvinnurnar yfer hønum. Mier þyker þad hafa vered Afgud Vijnsins Bacchus, so sem S. Urban hioa oss.

15. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Sier þu þetta? Þo skalltu enn nu sioa stærre Svijvirdingar enn þessar eru.

16. Og hann leidde mig jnn j þann jnnra Gardenn a Huse DROTTins, Og sioa þu, ad fyrer Musteresins Dyrum DROttins, a millum Fordyranna og Alltaresins, þar voru nær Fimm og Tuttugu Menn, sem sneru Bakenu vid Mustere DROttins, og sijnum Andlitum a mote Austrenu, og þeir tilbaadu j moote Soolarennar Uppgongu,

17. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Sier þu þetta? Hvort er Husenu Juda þetta enn of-lijted, ad giora hier allar soddann Svijvirdingar? Þar ed þeir fremia þo ecke utann Yfergang og Oriettinde j ollu Landenu, og fara til, og reita Mig og so til Reide. Og sioa þu, ad þeir hallda (c) Vijnvidar-Kvistum ad Nosunum.

(c) (Vijnvidar-Kvistum) Þad hefur vered Sidvenia, j þeirra Guds-Þionustu, so sem hioa oss Vijgt Sallt, Vatn, Jurter, og annad þvilijkt, þeirra Afgudum til Heidurs.

18. Þar fyrer vil Eg og so hondla vidur þa medur Grimmdar-Reide, Og Mitt Auga skal ecke spara þa, Og Eg vil ecke Miskunsamur vera. Og þo ad þeir kalle enn nu med hoarre Raust fyrer mijnum Eyrum, þa vil Eg þo ecke Heyra þa.

# IX. Capitule.

Allt Folked i Jerusalem er droped, nema þeir sem andvorpudu og hørmudu yfer Svijvirdingum Borgarennar.

Og hann kallade med hoarre Raust fyrer mijnum Eyrum, og sagde, Laat Vitiunena Stadarens naalægiast, og hvor eirn skal hafa daudlegt Vopn j sinne Hende!

2. Og sioa þu! Þar komu Sex Menn a Veigenum, hingad fra þvi Yferportenu, sem stendur moot Nordrenu, og hvor þeirra hafde eitt skadlegt Vopn j sinne Hende. Enn þar var eirn a medal þeirra sem Lijnklæde a sier hafde, og ein Skriffære vid sijna Sijdu. Og þeir geingu þangad jnn, og stoodu hioa Kopar-Alltarenu.

3. Og Dijrdenn Guds Israels lypte sier upp fra þeim Cherub, yfer hvorium hun var, under Hvolfingu Hussens, og kallade a þann sem j Lijnklædenu var, og Skriffærenn hafde vid sijna Sijdu.

4. Og DROttinn sagde til hans, Gack þu j giegnum Stadenn Jerusalem, og teikna med einu Teikne j Ennum þess Folksins sem stynia,

stynia, og aumka sig yfer øllum þeim Svij-
virdingum sem þar jnne skie.

5. Enn hann sagde til hinna annara, so
eg heyrde, Ganged epter hønum j giegnum
Stadenn, og slaaed þar j bland, ydar Augu
skulu ecke vægia nie þirma.

6. Slaaed bæde Gamla og Unga, Meyar,
Konur og Born, alla til Dauds. Enn
øngva af þeim skulud þier aahræra, sem Teik-
ned hefur. Enn taked first til a Mijnum Hel-
gedome. Og þeir upphoofu a þvi Gamla Fol-
kenu sem þar var fyrer Husenu.

7. Og hann sagde til þeirra, Saurged
Hused, og fylled Forgardenn med Dauda
Lijkame, Ganged ut. Og þeir geingu ut, og
sloou j Stadnum nidur.

8. Og þa ed Mannfalled var skied, þa
var eg enn epter ordenn. Og eg fiell framm
a mijna Asionu, kallade og sagde, Oh
DROTTinn DROTTinn! Villtu þa
fyrerfara þeim øllum sem epter eru vordner
j Israel? First þu uthellter so þinne Reide
yfer Jerusalem.

9. Og hann sagde til mijn, Su Misgiord
Hussens Israels og Juda er mikels til Ofstoor,
þar er ecke utann Ofrijke j Landenu, og Ran-
ginde j Stadnum, þviad þeir segia, DRot-
tinn hefur yfergiefed Landed, og DROttinn
hann sier oss ecke.

10. Þar fyrer skal mitt Auga ecke spara,
Eg vil og ecke vera Naadugur, Helldur þa
skal Eg kasta þeirra Giorninge yfer Høfud
þeim.

11. Og sioa þu! ad Sa Madurenn sem j
Lijnenu var klæddur, og Skriffærenn hafde
vid sijna Sijdu, svarade, og sagde, Eg hefe
so giort sem þu skipader mier.

## X. Capitule.

Ezechiel (I) talar um Einn Mann i Lijnklædum, er tekur Handfylle af gloande Kolum til ad ausa ut yfer Borgena; og (II) talar aptur um sijna Vitran vid Vatned Chebar, af hverre seger i 1. Capit.

I. Og eg saa, Og sioa þu! A Himnenum,
upp yfer Hofdenu Cherubim, var
þad lijka aalits sem annar Saphirus, og
þar uppyfer var þad lijka so, til ad sioa, sem
eirn Velldis-Stooll.

2. Og hann sagde til þess Mannsins j
Lijnklædunum, Gack þu jnn a millum Hioo-
lanna, under Cherub, og tak þijnar Hendur
fullar af Gloande Kolum, sem ad eru a mille
Cherubim, og dreif þeim ut yfer Stadenn.
Og hann gieck þangad jnn, so ad eg saa, ad
sa hinn same gieck þar jnn.

3. Enn (a) Cherubim stoodu Hægramei-
genn j Husenu, og Forgardurenn var jnnann
til fullur af Þoku.

(a) (Cherubim) Hier saa Menn, ad Cherub, edur Cherubim, er ecke ein sierleg Skiepna, helldur ein flugande aasynd, edur Mind eins Fugls, Uxa, Leons, Manns, j hvorre Einglarner openbera sig, so sem þeir vilia. Þar fyrer kallast þeir og so Cherubim, og þydast fyrer Cherubim sømuleidis og so Kyrkiunnar Einglar, þad eru Postularner, Spaamenner-ner, Biskupar, edur Predikarar, oz etc.

4. Og Dijrdenn DROttins upplypte sier
fra Cherub, til Hvolfsins a Husenu, og Hu-
sed vard fullt af Þoku, Enn Forgardurenn
fylltest med Leyptran af Dijrd DROttins.

5. Og Þyturenn Vængianna þeirra Che-
rubim heyrdest allt ut yfer Forgardenn, Lijka
sem Raustenn Almaattugs Guds, nær ed
Hann talar.

6. Og þa ed hann hafde boded þeim Man-
nenum j Lijnklædunum, og sagt, Tak þu
Elldenn a millum Hioolanna under Cheru-
bim, þa gieck sa hinn same jnn, og stood hiaa
Hioolunum.

7. Og Cherub utriette sijna Hønd a mil-
lum þeirra Cherubim til Elldsins, þess sem
var a millum Cherubim, og tøk þar af, og
fieck j Hendur Mannenum j Lijnklædunum,
hann tok vid þvi, og gieck ut.

8. Og þad syndest a þeim Cherubim, lijka
sem ein Manns Hønd, under þeirra Væn-
gium.

II. 9. Og eg saa, Og sioa þu! Ad þar stodu
Fiogur Hiool hiaa Cherubim, hiaa hvørium

Cherub eitt Hiool, og Hioolenn voru so til ad siaa lijka sem eirn Turkous.

10. Og oll Fiogur voru þau, þad eina lijka sem hid annad, lijka so sem hvort Hiooled være j odru.

11. Nær ed þau skylldu nu ganga af stad, þa kunnu þau oll ad ganga j sijnar Fiorar Aatter, og þurftu ei ad snua sier vid, þa ed þau geingu, helldur, hvort þad hid firsta gieck, þangad geingu hin epter, og þurftu ecke ad snua sier vid, aasamt med sijnum giorvollum Lijkama, Hrigg, Hondum og Vængium.

12. Og Hioolenn voru full med Augu, allt um kring, a ollum Fiorum Hioolunum.

13. Og hann kallade til Hioolanna, (b) Galgal, so ad eg heyrde þad.

(b) (Galgal) Er þeirrar Meiningar, so sem segde Madur til Hioolsins, Snu þier! Snu þier! So sem skyllde þad ætijd snua sier og ganga.

14. Hvort þeirra hafde Fiogur Andlit, þad Firsta Andlited var eins Cherubs, þad Annad var eins Manns, hid Pridia eins Leons, Fiorda eirnrar Arnar.

15. Og þeir Cherubim sveimudu hoatt upp, þetta er þad sama Dyred sem eg saa hiaa Vatnenu Chebar. Nær ed Cherubim geingu þa geingu og eirnenn Hioolenn hiaa þeim.

16. Og nær ed Cherubim hreifdu sijnum Vængium, ad þeir loptudu sier, fra Jordenne, þa snerust og ecke helldur Hioolenn j fra þeim.

17. Nær ed þeir stodu, þa stodu og eirnenn þau, Lyptu þeir sier upp, þa upplyptu þaug sier og eirnenn, þviad þar var eirn Lifande Vindur j þeim.

18. Og Dijrdenn DROTTins gieck j burt aptur þadann, fra Hvolfenu a Husenu, og sette sig yfer Cherubim.

19. Pa hreifdu Cherubim sijnum Vængium, og loptudu sier upp fra Jordunne, fyrer mijnum Augum, og nær ed þeir geingu ut, þa geingu Hioolenn hiaa þeim, og þeir geingu til þeirra Dyranna a Huse DROTtins, a moot Austrenu, og Dijrdenn Guds Israels var upp yfer þeim.

20. Petta er þad sama Dyred sem eg saa under Gude Israels, hiaa Vatnenu Chebar, Og eg formerkte, ad þad voru Cherubim.

21. Hvort hafde Fiogur Andlit, og Fiora Vænge, og under þeirra Vængium lijka so sem Manns Hendur.

22. Peirra Andlits Mind var eins lijka so sem þad eg saa þaug j hiaa Vatnenu Chebar, og þau geingu beinann Veg fram fyrer sig.

## XI. Capitule.

Ezechiel spaaer mote Tveimur Stor-Herrum, Jasania og Platia, hverier ed Deya þegar.

Og eirn Vindur took mig upp, og flutte mig til Dyranna a Huse DROttins, þeirra sem horfa a mote Austrenu, og siaa þu! ad under Dyronum voru Fimm Menn og Tuttugu. Og eg saa Jasania, Assurs Son, a medal þeirra, og Platia, Banaia Son, Hofdingiana a medal Folksins.

2. Og hann sagde til mijn, Pu Mannsins Son! Pesser Meñ hafa Illskusamlegar Hugsaner, og Skadsamlegar Raadagiorder j þessum Stad.

3. Pviad þeir segia, Pad er enn ecke so nær komed, Laatum oss ad eins byggia upp Husenn, Er hun Kietellenn, so erum vier Kioted.

4. Par fyrer skalltu Mannsins Son! spaa j moote þeim.

5. Og Ande DRottins fiell yfer mig, og sagde til mijn, Seg þu, So seger DROttinn, Pier af Huse Israels! hafed so talad, og Eg þecke vel Þanka ydvars Anda.

6. Þier hafed marga jhel sleiged j þessum Stad, og hennar Stræte liggia (a) full af Daudum Monnum.

a) (Full) So marga Spaamenn hofdu þeir jhel sleiged, og hælldust samt um, ad þeir mundu standast a moote Kongenum af Babylon, Pvi þeir meintu, ad DROTTinn munde so ogiarnann vilia missa þa, so sem Kioted ur Katlenum, þad er, so sem Guds Pionustu

Þionustugiord, og Offred j Musterenu, sem ecke kann ad fordiarfast.

7. Þar fyrer seger DROTTinn DROttinn so, Þeir sem þier hafed jhel sleiged þar jnne, þeir eru Kioted, og hun er Kietellenn, Enn þier hlioted hiedan.

8. Eg vil laata Sverded koma yfer ydur, sem þier erud hrædder vid, seger DROttinn DRottinn.

9. Eg vil utskufa ydur j burt þadañ, og giefa ydur j Annarlegra Hendur, og Eg vil giora ydur ydvarn Riett.

10. Þier skulud falla fyrer Sverde, J þeim Landsaalfum Jsraels vil Eg dæma ydur, og þier skulud fornema þad, ad Eg sie DRottinn.

11. Enn Stadurenn skal ecke vera ydar Kietell, eige helldur þier Kioted þar j, helldur vil Eg dæma ydur j Jsraels Landamerkium.

12. Og þier skulud fornema ad Eg er DROttinn. Þviad þier hafed ecke geinged epter mijnum Bodordum, og ecke hallded mijn Riettinde, Helldur hafed þier breytt epter Sidveniu Heidingianna, Þeirra sem eru j kringum ydur.

13. Og þann Tijd eg spaade so þa deyde Platia, Benáia Son. Þa fiell eg framm a mijna Asionu, og hroopade med haarre Raust, og sagde, Oho! DROttinn DROTTinn! Hvort villtu nu olldungis giora eirn Enda, a ollum þeim sem epter eru ordner j Jsrael?

14. Þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde,

15. Þu Mannsins Son! Þijner Brædur og Naanustu Frændur, og allt Jsraels Hus, sem enn nu byr j Jerusalem, segia vel so hvor vid annann, Hiner adrer eru langt j burt flyder fra DROTTne, Enn vier holldum Landenu.

16. Þar fyrer þa seg þu, So seger DRottinn DROTTinn, Jaa, Eg hefe laated (b) reka þa langt j burt a medal Heidingianna, og dreift þeim um Londenn. Þo vil Eg snarlega vera þeirra Frelsare j þeim Londum sem þeir eru komner til.

(b) (Reka) Sumer utleggia þetta Imperative, Flyed langt j burt.

17. Þar fyrer seg þu, So seger DROTTinn DRottinn, Eg vil samansafna ydur j fra Folkenu, og Eg vil samansafna ydur ur þeim Londum j hvor þier erud burt dreifder, og Eg vil giefa ydur þad Landed Jsraels.

18. Þangad skulu þeir koma, og j burt taka þadann allar Afguda ⸗ Dijrdkaner, og Svijvirdingar.

19. Og Eg vil giefa ydur eitt samhugad Hiarta, og Eg vil giefa eirn Nyann Anda j ydur, og Eg vil burt taka þad Stein⸗Hiartad ur ydru Brioste, og giefa ydur eitt Kiotlegt Hiarta.

20. So ad þeir gange j Mijnum Setningum, og hallde mijn Riettinde, og giore þar epter, Og þeir skulu vera Mitt Folk, so vil Eg vera þeirra GUd.

21. Enn þeir sem ganga epter þeirra Hiartans Afguda⸗Dijrdkun, og Svijvirding, Þeirra Giorningum vil Eg þeim sioalfum j Koll kasta, seger DROTTinn DROTTinn.

22. Þa flocktu Cherubim þeirra Vængium, og Hioolenn geingu hiaa þeim, og Dijrdenn Guds Jsraels var upp yfer þeim.

23. Og Dijrdenn DROTTins upplyptest af Stadnum, og sette sig uppa Fialled, þad sem liggur jmoot Austrenu fra Stadnum.

24. Og eirn Vindur lypte mier upp, og flutte mig j eirnre Syn, j Guds Anda, j Chaldea, til Fanganna, og su Synenn, sem eg saa, hvarf fra mier.

25. Og eg sagde til Fanganna oll þau Ord DROTTins, sem hann hafde vijsad mier.

## XII. Capitule.

Ezechiel (I) seger fyrer, med sinum Ferda⸗Buninge, ad Gydinga ⸗ Folk ætte ad Herleidast; En (II) ad þeir sem epter yrdu i Landenu skylldu lifa i mikille Hriggd.

I. Og Ord DROttins skiede til mijn og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Þu byr a medal eins Ohlydugs Huss, sem vel hafa Augu, so ad þeir kunne ad sioa, og vilia ecke sioa, Eyru, so ad þeir kunne ad heyra, og vilia ecke heyra, helldur er þad eitt Ohlydugt Hus.

3. Þar fyrer, þu Mannsins Son! Tak þinn Ferda-Buning, og far af Stad þadann a biortum Deige, fyrer þeirra Augum, þu skallt fara j burt fra þijnum Stad, til eins Annars Stadar, fyrer þeirra Augum, Ef ad so mætte verda, ad þeir villdu formerkia þad, ad þeir være eitt Ohlydugt Folk.

4. Og þu skallt taka þinn Farangur ut med þier, so sem Ferda-Bunad, a biortum Deige, fyrer þeirra Augum, Og a moote Kvølldenu skalltu j burt fara, fyrer þeirra Augum, lijka so sem þad Madur byr sig af Stad, næred hann vill ferdast.

5. Og þu skallt briotast j giegnum Veggenn, fyrer þeirra Augum, og fara so þar ut j giegnum.

6. Og þu skallt taka þad uppa þijnar Herdar, fyrer þeirra Augum, og bera þad ut þa mirkt er orded. Þu skallt byrgia þitt Andlit, so ad þu sioaer ecke Landed, Þviad Eg hefe sett þig Israels Huse til eins Furdanlegs Teikns.

7. Og eg giorde sem mier var boded, og bar ut minn Fans, so sem Ferda-Fans, a Biortum Deige, og um Kvøllded groof eg med minne Hende j giegnum Veggenn, og þa ed mirkt var orded took eg hann upp a Herdarnar, og bar hann ut fyrer þeirra Augum.

8. Og Ord DROttins skiede til mijn snemma um Morgunenn, og sagde,

9. Þu Mannsins Son! Hefur ecke Israels Hus, þad Ohlyduga Hused, sagt til þijn, Hvad giorer þu?

10. So seg þu til þeirra, So seger DROttinn DROTTinn, Þesse Byrdar-Þungenn snerter þa Hofdingiana j Jerusalem, og allt Israels Hus sem þar er jnne.

11. Seig þu, Eg er ydart Furdunar-Teikn, So sem Eg hefe giort lijka so skal ydur skie, so ad þier hlioted ad fara, og Hertekner j burt flutter ad verda.

12. Ydar Hofdinge skal j Mirkrenu a Herdunum (a) bera, og j giegnum þann Veggenn mun hann fara, sem þeir munu briota, til ad fara þar j giegnum, hans Andlit mun byrgiast, so ad hann skule ecke sioa Landed, med neinu Auganu.

(a) (Bera) Þad er, Hann skal hvorke rijda nie aka ut þadann, og etc.

13. Eg vil og so kasta mijnu Nete yfer hann, ad hann skule veidast j mijnum Veidarfærum, og Eg vil flytia hann j Babylon, j Chaldea Land, hvort ed hann skal þo ei (b) sioa, og þar skal hann deya.

(b) (Sioa) Þviad hans Augu skulu utstijngast j Riblath, Jer. 29. og 52. So sa hann Kongenn af Babylon, so sem Jeremias sagde, og sa þo ecke Babylon, so sem Ezechiel sagde, hvoria Tvo Hlute Gydingar hielldu fyrer Lyge, Af þvi, ad hvor være odrum osamhliodande.

14. Og Eg vil j sundurtvistra þeim øllum sem ad eru j kringum hann, hans Fulltingiurum, og øllum hans Til-Heingiurum, j allar Atter Vindanna, og utryckia Sverdenu a bak til vid þa.

15. So skulu þeir formerkia ad Eg er DROTTinn, nær ed Eg j burt keyre þa a medal Heidingianna, og j sundur dreife þeim j Londenn.

16. Enn Eg vil laata nockra faaeina epter verda af þeim fyrer Sverdenu, Hungrenu og Drepsottenne, þeir skulu kunngiora þeirra Svijvirdingar a medal Heidingianna, til hvorra ed þeir munu koma, og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

II. 17. Og Ord DRottins skiede til mijn, og sagde,

18. Þu Mannsins Son! Þu skallt eta þitt Braud med Hrædslu, og drecka þitt Vatn med Skialfta og Sorg.

19. Og seg til Folksins j Landenu, So seger DROTTinn DROttinn, af Innbyggiurum Jerusalem, j Israels Lande, Þeir skulu eta sitt Braud j Sorg, og drecka sitt Vatn j Eymd, þviad Landed skal verda j Eyde

de, af ollu þvi sem þar er jnne, fyrer Motþroda Saker allra Innbyggiaranna.

20. Og þeir Staderner sem vel eru setner skulu j Eyde leggiast, og Landed ad Ordæfum verda, so skulud þier formerkia ad Eg er DRottinn.

21. Og Ord DROTTins þad skiede til mijn, og sagde,

22. Þu Mannsins Son! Hvad hafed þier fyrer eitt Ordtæke j Israels Lande? Og seged, *First þad dregst so leinge undann, þa verdur nu hiedann j fra ecke neitt af Spaadomenum.

* 2 Pet. 3, 4.

23. Þar fyrer seg þu til þeirra, So seger DROTTinn DROTTinn, Eg vil burt taka þad Ordtæked, so þad skal ecke meir tijdkad vera j Israel. Og tala þu til þeirra, Sa Tijme er nææagur, og allt þad sem spaad er fyrer.

24. Þviad nu hiedann j fra skulud þier formerkia, ad þar skal a ongre Sion Brestur verda, og eingenn Spaadomur skal liuga j giegn Israels Huse.

25. Þviad Eg er DROTTinn, hvad Eg tala þad skal skie, og ecke laung Frest a verda, helldur vil Eg þad a ydar Tijd fullgiora, Þu hid Ohlyduga Hus! so sem Eg hefe talad, seger DROTTinn DROTTinn.

26. Og Ord DROttins skiede til mijn, og sagde,

27. Þu Mannsins Son! Sioadu, Israels Hus þad seger, Su Syn sem ad þesse hann sier hun er enn nu langt j burtu, og hann spaer af þeim Tijmanum sem ad enn er miog fiarlægur.

28. Þar fyrer seg þu til þeirra, So seger DROTTinn DROTTinn, Hvad Eg tala, þar skal ecke leingur Frest a verda, helldur skal þad skie, seger DROttinn DROttinn.

# XIII. Capitule.

Ezechiel (I) talar um Fals-Propheta; Og (II) um Fals Spaakonur i Jerusalem.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Spaa þu a moote þeim Prophetunum Israels, og seg til þeirra sem spaa ut af sijnum eigenn Hiortum, Heyred Ord DROTTins!

3. So seger DROTTenn DROTTenn, Vei þeim Heimskusamlegum Prophetum sem epterfilgia sijnum eigennlegum Anda, og hafa þo ongva Syn!

4. O Israel! Þijner Prophetar eru lijka so sem Refar a Eydemorku.

5. Þeir stijga ecke upp yfer Munnann, og giora ecke Gyrding j kringum Israels Hus, og þeir standa ecke j Strijdenu a Deige DROttins.

6 Þeirra (a) Sioner eru rangar, og þeirra Spaadoomar eru ecke utann Lygar. Þeir segia, DROTTinn sagde þad, þo ad DROTTinn ut sende þa ecke, og omaka sig so um þad, ad þeir faae sijnum Efnum frammhallded.

(a) (Sioner) Ydar Kienning og Lærdomur.

7. Er þad eige so, ad ydar Sioner eru rangar, og ydrer Spaadomar eru ecke utann Lygar? Og þier seged þo samt, DRottinn talade þad, þo Eg talade þad eige.

8. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn so, First ad þier prediked þad sem ecke verdur neitt af, og spaaed fyrer Lygum, þa vil Eg finna ydur, seger DRottinn DRottinn.

9. Og Mijn Hond skal koma yfer þa Prophetana, sem Predika þad sem eckert verdur af, og fyrer-spaa Lygum. Þeir skulu ecke vera j Samkundu mijns Folks, og ecke jnnskrifader vera j þa Toluna Hussens Israels, og eige helldur koma j Landed Israels, Og þier skulud fornema ad Eg er DROTTinn DROTTinn.

10. Þar fyrer, ad þeir afvega leida mitt Folk, og segia Frid, þar sem þo er eingenn Fridur. Folked þad uppbygger (b) Veggenn, enn þeir lijma hann med hallð-illu Kalke.

(b) (Vegg ad byggia) Kallar hann ad breyta epter þvi sem kiennt er, Enn Murveggenn ad lijma, er

 ad

ad hugga og fyrerheita þvi, ad allt skule vel tilganga, enn hvørtveggia er þo til einskis, og ecke nema Lygar.

11. Seig þu til Kalkaranna, sem lijma med þvi halld-illa Kalke, ad þad skule af falla, þviad þar skal koma ein Steypedogg, og þar skal koma stoort Hagl, sem mun fella þad nidur, og eirn Hvirfel-Vindur skal sundurslijta þad, Sioa þu! So skal Veggurenn nidur falla.

12. Hvad gillder þad, ad þa mun so sagt vera til ydar, Hvar er nu þad Kalkid sem þier hafed kalkad?

13. So seger DROTTinn DROttinn, Eg vil laata eirn Hvirfel-Vind blaasa j minne Grimmd, og eina Steype-Dogg j minne Reide, og stora Hagl-Steina j minne Grimmd, þau skulu um kollkasta ollum Hlutum.

14. Þannenn vil Eg um kollkasta þeim Veggnum sem þier hafed lijmt, med þvi halldjlla Kalke, og Eg vil hrinda honum nidur til Jardar, so ad sioa meige hans Grunndvoll, ad hann ligge þar, og þier skulud eirnenn tortijnast þar jnne, og reyna so, þad Eg sie DROTTinn.

15. So vil Eg fullkomna mijna Grimmd a þeim Veggnum, og a þeim sem hann hafa kalkad med halld-illu Kalke, og segia til ydar, Hier er hvørke Veggurenn, nie Kalkarenn.

16. Þad eru þeir Jsraels Prophetar, hvorier ad spaa Jerusalem, og Predika af Fride, þo ad þar sie eingenn Fridur, seger DROTTinn DROTTinn.

II. 17. Og þu Mannsins Son! Set þitt Andlit j mote Dætrunum þijns Folks, sem spaa af sijnu Hiarta, og spaadu a mote þeim.

18. Og segdu, So seger DROTTinn DROTTinn, Vei ydur sem giored Folkenu Hægende under Handleggena, og Koddana under Hofudenn, bæde Ungum og Gomlum, til ad (c) veida med Saalernar, Nær ed þier hafed veidt Saalernar, a medal mijns Folks, þa lofed þier þeim Lijfenu!

(c) Good Hiortu hrædast fyrer Guds Nafne, þar fyrer verda þau hæglega azetiud og fangenn med raungum Lærdome, sem kienndur verdur under Guds Nafne.

19. Og vanhelged Mig a mijnu Folke fyrer eirn Hnefa Bygg-Miols, og eitt Sticke Brauds, þar med, ad þier dæmed Saalernar til Dauda, sem ad þo ættu ei ad deya, og dæmed þeim Lijfed, sem þo ættu ei ad lifa, fyrer ydar Lygar a medal mijns Folks, sem giarnann heyrer Lygarnar.

20. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn, Sioa þu! Eg vil finna ydar Hægende medur hvorium þier veided, og ofreysted Saalernar, og Eg vil j burt slijta þau fra ydar Handleggium, og giora þær Saaler lausar sem þier veided og hughreysted. Og Eg vil j sundur rijfa ydar Kodda, og frelsa Mitt Folk af ydvarre Hende, so ad þier skulud ecke meir veida þa, og þier skulud fornema ad Eg er DROTTinn.

21. Þar fyrer, ad þier hrellded Hiortunn Riettferdugra Svikfsamlegana, sem Eg hafde ecke hrellt, og þier stirktud Hendur hinna Ogudlegu, ad þeir snere sier ecke j burt fra sijnu Jllskusamlegu Athæfe, so ad þeir mættu lifa.

22. Þar fyrer skulud þier ecke meir Predika, og ecke helldur spaa fyrer Onytsamlega Lærdoma, Helldur vil Eg frelsa mitt Folk ur ydar Hondum, og þier skulud fornema ad Eg er DROTTinn.

## XIV. Capitule.

Ezechiel (I) Straffar Hræsne, og (II) Bodar þeim Ogudlegu Ferns-Hattar Straff.

I. Og þar komu nockrer af Olldungunum Jsraels til mijn, og settu sig nidur framan fyrer mier.

2. Þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde.

3. Þu Mannsins Son! Þetta Folk helldur sier med þeirra Hiortum vid sijna Afgude, og hallda a þeirre Hneixlan sinna Jllgiorda, Skyllde Eg svara þeim nær ed Þeir ad spyria Mig?

4. Þar fyrer tala Þu vid þa, og seg þu til

þeirra, So seger DROttinn DROttinn, Hvada Manne af Israels Huse sem helldur sier j sijnu Hiarta vid sijna Afgude, og helldur fast a þeim Hneixlonum sinna Illgiorda, og kiemur til Prophetanna, Pa vil Eg DROTTinn svara þeim hinum sama, so sem hann hefur forþient medur sinne mikellre Afgudadijrdkan.

5. Uppa þad, ad Israels Hus skule tælast j sijnu Hiarta, af þvi ad þeir j burtu vijkia aller fra Mier, med Afgudadijrdkan.

6. Þar fyrer skalltu segia til Hussens Israels, So seger DROttinn DROttinn, Umvended og j burt snued ydur j fra ydvare Afgudadijrdkan, og snued ydar Andlitum j burt fra ollum ydar Svijvirdingum.

7. Þviad hvor Madur af Israels Huse, edur Utlendingur, sa sem byr j Israel, sem j burt vijkur fra Mier, og vidloder med sijnu Hiarta vid sijna Afgude, og helldur vid Hneixlun sinnar Afgudadijrdkunar, og kiemur til Prophetans, þad hann adspyrie Mig fyrer hann, þeim vil Eg DROTTinn sialfur Svar giefa.

8. Og Eg vil setia mitt Auglit a moote þeim hinum sama, so ad þeir skulu verda j Eydeleggder, og hafder vera ad Fyrerburde og Moalshætte, og Eg vil uppryckia þeim fra mijnu Folke, So ad þier skulud forneina ad Eg er DROTTinn.

9. Og þar sem eirn a Toalar dreigenn Prophete talar eitthvad, Pa vil Eg DROttinn loata þann sama þar j gien a Toalar dreigenn verda, og Eg vil utrietta Mijna Hond yfer hann, og uppryckia honum fra mijnu Folke Israel.

10. So skulu þeir hvorutveggiu bera sinn Misgiorning, og so sem ad hans Misgiorningur er sem ad spyr, eins lijka so skal og Misgiorningurenn Prophetans vera.

11. So ad þeir skulu ei leingur villa Israels Hus j burt fra Mier, og ecke meir saurga sig med allshoattudum Yfertrodslum, helldur skulu þeir vera Mitt Folk, og Eg vil vera þeirra Gud, seger DROTTinn DROTTinn.

II. 12. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

13. Pu Mannsins Son! Nær ed eitt Land syndgast a mote Mier, og forsmoaer Mig þar ofan a, þa vil Eg utrietta mijna Hond yfer þad hid sama, og j burt svipta Brauds-Nægtunum, og Eg vil senda þangad Hallære, so ad Eg skal uppryckia þar inne bæde Monnum og Fienade.

14. Og þo ad þeir Þrijr Menn, Noe, Daniel, og Job, være þar inne, þa mundu þeir ad eins sijnum eigenn Soalum biargad gieta, fyrer sialfs sijns Riettlæte, seger DROTTinn DROTTinn.

15. Og nu, þo ad Eg innleidde ill Dyr j Landed, sem utrymde Folked, og eydde Landenu, so ad eingenn kynne ad ferdast þar inne, fyrer Dyranna saker,

16. Og þesser Þrijr Menn være þar og eirnenn inne, So Sannarlega sem Eg life (seger DROTTinn DROTTinn) þa mundu þeir hvorke biargad gieta Sonum edur Dætrum, helldur alleinasta sialfum sier, Og Landed skyllde j Eyde leggiast.

17. Eda ef Eg liete Sverd koma yfer Landed, og segde, þu Sverd! Far þu j giegnum Landed, og Eg uppryckte so Monnum og Fienade,

18. Og þeir Þrijr Menn være þar inne. So Sannarlega sem Eg life (seger DROttinn DROttinn) þa mundu þeir hvorke soa biargad Sonum nie Dætrum, helldur skyllde þeim alleina biargad verda.

19. Ellegar, ef ad Eg innsende Drepsott j Landed, og liete ausa minne Grimmd yfer þad, og uthella Blodenu, so ad Eg uppryckte bæde Monnum og Fienade,

20. Og Noe, Daniel, og Job, være þar inne, So Sannarlega sem Eg life, seger DROTTinn DROTTinn, þa mundu þeir hvorke gieta biargad Sonum nie Dætrum,

trum, helldur alleinasta sijnum eigenn Saalum, fyrer sialfra þeirra Riettlæte.

21. Þvi so seger DROTTinn, Ef Eg jnn sende mijnar Fiorar jllar Refsingar yfer Jerusalem, sem er, Sverd, Hungur, Jllsku-Dyr, og Drepsoott, Ad Eg uppryckie so þar jnne bæde Mønnum og Fienade,

22. Sioa þu! Þa skulu þo nockrer þar jnne epter verda, af þeim sem þadan skulu utleida Syne og Dætur, og koma hingad til ydar, so ad þier skulud sioa hvornenn ad þeim vegnar, og hughreysta ydur yfer þvi Giæfuleyse, sem Eg liet koma yfer Jerusalem, med ollu þvi odru sem Eg liet koma yfer hana.

23. Þeir skulu vera ydar (a) Huggun, Nær ed þier sioaed ad sioa Hvornenn ad þeim vegnar, og þier skulud fornema ad Eg giorde þad ecke aan Orsaka hvad Eg hefe þar jnne giort, seger DRottinn DRottinn.

(a) (Huggun) Þeir Herteknu j Babylon glöddust þar vid, ad þeir j Jerusalem hlutu og ad koma j Fangelse til þeirra, af hvørium þeir voru og haaduglega smaanader, so sem hefdu þeir förhlanped Gud og sitt Fosturland.

## XV. Capitule.

Ezechiel fyrerminnar Jerusalems Eydelegging, med Einu Vijntre.

Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

2. Þu Mannsins Son! Hvad er þad Tried af Vijn-Videnum fyrer ødrum Trioanum, Ellegar eirn Vijnkvisturenn fyrer ødrum Trioanum j Skogenum?

3. Tekur Madur þad nockud og giører þar eitthvad af? Eda giørest þar einn Nagle af, so ad þar meige nockud uppa festa?

4. Sioa þu! þvi verdur a Elld kastad, so þad verde fortært, ad Elldurenn foreyde so baadum þess Endum, og brenne eirnenn upp Midbyked þar af, Hvar til skyllde þad nu duga?

5. Duger þad þa til nockurs? Sioa þu! Þann Tijd ad þad var enn nu heillt, kunne Madur eckert ur þvi ad giora, Hvørsu miklu midur þa kann þar nu hiedan j fra nockud af þvi ad giørast, first ad Elldurenn hefur foreydt þvi, og uppbrennt þad.

6. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn, Lijka sem Eg gaf Vijn-Vidar Tried j Elldenn, ad hann foreydde þvi, helldur enn odrum Trioanum j Skogenum, Eins lijka so vil Eg eirnenn giora vidur Jnnbyggiarana j Jerusalem.

7. Og Eg vil setia mitt Auglit a moote þeim, so ad þeir skulu ecke undann Elldenum kom[a]t, Helldur skal Elldurenn upp eta þa, Og þier skulud fornema ad Eg er DROTTinn, nær ed Eg set mitt Auglit a moote þeim.

8. Og legg Landed j Eyde, af þvi ad þeir forsmoa Mig, seger DROTTinn DROTTinn.

## XVI. Capitule.

Ezechias talar (I) um Guds Godgyrne vid Gydinga; (II) Um þeirra Gudleyse; Og (III) þeirra Straff; En (IV) ad GUD villde samt giøra Einn Nyann Saattmaala vid þa apturhorfnu Gydinga.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Opennbera þu Borgenne Jerusalem hennar Svijvirdingar.

3. Og seg þu, So seger DROTTinn DROTTinn til Jerusalem, Þitt Kinferde, og þijn Ætt, er af Canaans Lande, þinn Fader af Amoritum, og þijn Moder af Hethitum.

4. Þijn Fæding var so, þinn Nafle er ei umskorenn þa ed þu varst fædd, so hafa Menn og ecke laugad þig j Vatne, so ad þu skyllder verda hrein, og eige helldur nued þig j Sallte, og eige helldur vafed þig j Reifum.

5. Þviad eingenn sea aumur a þier, ad hann kiennde j Briost um þig, so ad hann veitte þier eitt af þessu, Helldur vard þier utkastad a Landed, so fyrerlitenn var þijn Saala, þann Tijd þu varst fædd.

6. Enn Eg gieck framm hiá þier, og sá þig liggia j þijnu Bloode, og sagde til þijn, þar ed þu láast so j þijnu Bloode, Þu skallt lifa, Jáa! til Þijn, sagde Eg, þar ed þu láast so j þijnu Bloode, Þu skallt lifa!

7. Og Eg hefe fædt þig upp, og láted þig vaxa, so sem Avextenn a Akurlendenu, og þu varst nu vaxenn, stor og fogur ordenn, þijn Briost voru vaxenn, og þu hafder allaveidu feinged langt Haar, Enn þu varst enn nu ber og nakenn.

8. Og Eg gieck framm hiá þier, og leit til þijn, Og siá þu! Ad þad var Tijme til ad biðia þijn. Þa utbreidde Eg mitt Kaapu-Blad yfer þig, og breidde yfer þijna Blygdan. Og Eg lofade þier, og gaf Mig i eirn Sattmaala vid þig, seger DROTTinn DROTTinn, ad þu skyllder vera Mijn.

9. Og Eg laugade þig med Vathe, og þvode þig af þijnu Bloode, og smurde þig med Balsame.

10. Og klædde þig med kostulegum Klædnade, og dro a þig Flugels Skoo, Eg gaf þier prydeleg Lijn-Klæde, og Silke-Slædur.

11. Og prydde þig med Klenodium, og lagde Speingur a þinn Arm, og Festar a þinn Hals.

12. Og fieck þier Gull-Hlad a þitt Enne, og Eyrna-Hringa j þijn Eyru, og eina fagra Koronu a þitt Hofud.

13. Snøggt ad segia, Þu varst prydd med Gull og Silfur, og klædd med Lijn-Klædum, Silke og mislitum Klædum, Þu aatst ecke utann Hveite, Hunang og Vidsmior, og þu varst frabærlega Væn, og hlautst Konungs Rijked.

14. Og þijn Frægd hliomade a medal Heidingianna, fyrer þinnar Fegurdar Saker, sem algiorlegana var fullkomnud, vegna þeirrar Pryde sem Eg seste a þig, seger DROTTinn DROTtinn.

II. 15. Enn þu forlietst þig uppa þijna Fegurd, og af þvi þu varst so vijdfræg, þa drijgder þu Hooraner, so ad þu giorder þig Almennelega hvorium Manne, sem gieck framm um hiá þier, og giorder hans Villia.

16. Og þu tokst af þijnum Klædum, og giorder þier mislit Olltaru þar af, og framder þijna Hooran þar a, sem alldrei skiede fyrr, nie skie mun.

17. Þu tookst og Þijn Fegru Kier, sem Eg gaf þier, af mijnu Gulle og Silfre, og giorder þier Manns Minder þar af, og drijgder þijna Hooran med þeim.

18. Og þu tookst þijn kostulegu Klæde, og skrydder þær þar med, og lagder mitt Oleum og Reykelsi fyrer þær!

19. Minn Mat sem Eg gaf þier til Fædu, Hveite, Vidsmior, og Hunang, lagder Þu fyrer þær til Sætleiks Ilms. Jáa, þad kom enn so langt, seger DROTTinn DROTTinn,

20. Ad þu tokst þijna Syne og Dætur, sem þu fædder Mier, og offrader þa þeim til Fædslu. Meinar þu þa ad þijn Hooran sie eirn lijtels hattar Hlutur?

21. Þad þu slaatrar mijnum Bornum, og lætur brenna þau upp fyrer þeim.

22. Þu hefur enn nu alldrei, j þinne Svijvirding og Hooran, hugleidt þinn Æsku-Tijma, hvorsu ber og Alnakenn þu varst, og laast j þijnu Bloode.

23. Og umframm alla þessa þijna Illsku (Ach! Vei! Vei þier!) seger DROTTinn DROTTinn.

24. Þa bygger þu þier Biarg-Kyrkiur, og giorer þier Biarg-Olltaru a ollum Strætum.

25. Og fremst a ollum Vega-Mootum bygger þu þier Biarg-Olltaru, og giorer þinn Fegurdar Bloma til Svijvirdingar, Þu slær þijnum Footum j sundur, moote ollum þeim sem kringum þig ganga, og drijer mikla Hooran.

26. Fyrst drijer þu Hooran med Egyptalands Bornum, þijnum Naagrønnum, sem hofdu Kiot miked, og framder miklar Hooraner Mier til Styggdar.

27. Enn Eg utriette mijna Hond moote þier, og aptrade þeirre þinne Breytne, og yfergaf þig j Villo þiña Ovina, Philistei Dœtra, sem skommuduſt ſijn, vegna þijns ſkammarlega Athæfes.

28. Þar epter drijgder þu Hooraner med Bornum Aſſur, og þu kunner ecke ad ſediaſt þar af. Jaa, þa ed þu hafder drijgt Hooraner medur þeim, og þu kunner ecke ad ſediaſt þar af,

29. Þa framder þu enn meire Hooraner j Canaans Lande, allt til Chaldea, og þu kunner enn ecke ad ſediaſt þar med.

30. Hvornenn ſkal Eg þa umſkiera þitt Hiarta? ſeger DROttinn DROttinn, med þvi ad þu giorer ſoddann eirnrar Hoſud-Skiækiu Giorning.

31. Þar med, ad þu bygger þijnar Biarg-Kyrkiur framm a ollum Vegum, og ſmijdar þijn Olltutu a ollum Strætum.

32. Þar til med varſt þu ecke ſem ein onnur Hoora, ſem kaupaſt verdur med Peningum, og ei helldur ſem ſu Hoor-Kona ſem tekur annann j Stadenn ſijns Manns.

33. Þviad ollum odrum Hoorum giefaſt Peningar til, Enn ollum þijnum Filge-Monnum þa giefur þu Peninga til, og ſkeinker þeim, ſo ad þeir kome alla Vega til þiju, og drije Hooraner med þier.

34. Og þad finnſt hiaa þier, þvert a moote Sidveniu annara Kvenna, med þinne Hooran, Af þvi ad Madurenn hann hleypur ecke epter þier, helldur giefur þu honum Peninga til, enn Mann giefur þier ecke Peninga til, ſo breyter þu þvert a moote þeim odrum.

III. 35. Þar fyrer, þa heyr þu Hoora! Ord DROttins.

36. So ſeger DROTTinn DROttinn, Med þvi þu giefur ſo giarnann Peninga þar til, og med þijnu Port-Lijfe uppfletter þinne Blygdan, fyrer þijnum Filge-Monnum, og þinne Svijvirdingu j moote ollum Afgudum, og þad þu utheller Bloodenu þinna Barna, þeirra ſem þu offrar þeim,

37. Þar fyrer þa ſiaa þu! Ollum þijnum Filge-Monnum, medur hvorium þu heſur Lyſting framed, ſaſamt med ollum þeim ſem þu helldur fyrer Vine, vil Eg ſamanſaſna til þinna Ovina, Og Eg vil ſamanſaſna þeim hvorutveggiu a moote þier alla Vegana, og uppfletta fyrer þeim þinne Blygdan, ſo ad þeir ſkulu olldungis ſiaa þijna (a) Skomm.

(a) (Skomm) Skomm er hier ecke annad enn ſu Tijkamlega Forreydſlann, og þeirra Rijke og Rijkis-Stiorn er ſo ad ongvu ordenn.

38. Og Eg vil laata Domenn Hoordoms Konunnar, og þeirrar ed Bloodenu utheller ganga yfer þig. Og Eg vil uthella þijnu Bloode med Grimmd og Vandlætingu.

39. Og Eg vil giefa þig j þeirra Hendur, ſo ad þeir ſkulu ofann briota þijnar Biarg-Kyrkiur, og nidur ſlaa þijn Biarg-Olltutu, og fœra þig ur þijnum Klædum, og taka þijn koſtuleg Kier fra þier, og laata þig ſo ſitia Alnakta og bera.

40. Og þeir ſkulu innleida yfer þig mikenn Folksfiolda, ſem þig ſkulu Griote gryta, og i ſundur hoggva þig medur ſijnum Sverdum.

41. Og upp brenna þijn Hus med Ellde, og giora þier þinn Riett fyrer Augſyn margra Kvenna. So vil Eg giora eirn Enda a þijnu Saurlijfe, ſo þu ſkallt ecke leingur giefa þar Peninga til.

42. Og Eg vil kiæla mijna Heipt a þier, og ſedia a þier mijna Vandlæting, ad Eg meige hvijlaſt, og þurfe ecke meir ſo reidur ad vera.

43. Af þvi, ad þu hefur ecke hugleidt þinn Æſku-Tijma, helldur reitt Mig til Reide, medur ollu þeſſu, Þar fyrer vil Eg og eirnenn leggia alla þijna Giorninga uppa þitt Hoſud, ſeger DROTTinn DROTTinn, þo ad Eg hafe enn ecke giort þar med, epter þeim Loſtum j þijnum Svijvirdingum.

44. Siaa þu! Aller þeir ſem plaga ad jdka Maalshaattu, þeir ſkulu hafa þennann Maalshaatt um þig, Dotterenn er ſo ſem Modurenn!

45. Þu ert Dotter þinnar Modur, þeirrar

var sem rak ut Bonda sinn og Born, og þu ert Syster þinna Systra, sem ut vraku sijna Bændur og Born, ydar Moder er ein af Hethitum, og ydar Fader eirn af Amoritum.

46. Samaria er þijn hin stærre Syster, med hennar Dætrum, sem bua þier til Vinstre Hlidar, og Sodoma er þijn hin minne Syster, med hennar Dætrum, sem bua til þinnar Hægre Hlidar.

47. Þo ad þu hafer ecke lifad epter þeirra Athæfe, og eige helldur giort epter þeirra Svijvirdingum, þa brestur þar ecke þo miked a, ad þu hafer giort verra enn þær, j ollu þijnu Athæfe.

48. So sannarlega sem Eg life, seger DRottinn DROTTinn, Sodoma þijn Syster, og hennar Dætur, hafa ecke so giort sem þu og þijnar Dætur.

49. Sioa þu! Þetta var Misgiordenn Systur þinnar Sodoma, (b) Drambseme, allskins Ohoof, og Fridur goodur, sem hun og hennar Dætur þær hofdu. Enn hiaalpudu ecke hinum Faatæka og Naudþurftuga.

(b) (Drambseme) Er ad træatsa a moote Gude fyrerlyta hans Ord, og treysta uppa sinn eigenn Vijsdom og Magt, so sem þar være eingenn Gud til, hvar soddann Guds Forsoktun er, og þar med Rijkedæme og Fridur, þar filgest ad allskonar Motþroan.

50. Helldur voru þær Drambsamar, og giordu Svijvirdingar fyrer Mier, Þar fyrer svipta Eg þeim j burt, þa ad Eg took til ad skygnast þar ad.

51. So hefur og eirnenn Samaria ecke giort Helmingenn af þijnum Syndum, Enn þu giorder þijna Svijvirding miklu meire, enn þad hun hefur giort, so ad þu hefur giort þijna Systur Froma hioa þier, a moote ollum þeim Svijvirdingum sem þu giorder.

52. So ber þu nu eirnenn þijna Skomm, þu sem þijna Systur giorer Froma fyrer þijnar Synder, þar þu giorder stærre Svijvirdingar enn hun, og giorer hana so Fromare enn þu ert. Af þvi skammast þijn og eirnenn, og ber þijna Skomm, þad þu hefur giort þijna Systur Froma!

53. Enn Eg vil snua þeirra Herleidingu, sem er Herleidingunne (c) Sodomæ, og Hennar Dætra, og Samariæ, og hennar Dætra Herleidingu, og þeirra hinna Fongudu, j þessare þinne Herleidingu, medur þeim.

(c) (Sodoma) Merker hier Juda, enn Samaria Israel, og hann talar hier um þann Nya Saattmaala, þa oll Verolldenn er snuenn til Christum.

54. So ad þu skallt bera þijna Skomm og Forsmaan, fyrer allt þad sem þu hefur giort, og þo skulud hier samt verda huggader.

55. Og þinne Systur Sodoma, og hennar Dætrum, skal snued verda, lijka sem þær voru Fordum Daga, og Samaria, og hennar Dætur skulu snuast, lijka sem þær voru fyr meir, þar til med skalltu eirnenn, og þijnar Dætur, snuast, lijka sem ad þier vorud Fordum Daga.

56. Og þu skallt ei meir hroosa þinne Systur Sodoma, so sem a Tijma þinnar Drambseme.

57. Þa þijn Illska var enn ecke openber. So sem a þeim Tijma þa ed Syrlands Dætur, og Philistea Dætur, skommudu þig a alla vegu, og forsmaadu þig allt um kring.

58. Þa ed hier hlutud ad bera ydar Skammer og Svijvirdingar, seger DROTTinn DROTTinn.

59. Þvi so seger DROttinn DROttinn, Eg vil giora vid þig, lijka sem þu hefur giort, ad þu forsmaaer Eidenn, og brytur Saattmaalann.

IV. 60. Enn Eg vil minnast a Minn Saattmaala sem Eg giorde vid þig, a þinne Æsku Tijd, og Eg vil uppbyria eirn Eylijfann Saattmaala vid þig.

61. Þa muntu minnast a þijna Vegu, og skammast þijn, nær ed þu skallt taka ad þier þijna stærre og hina minne Systur, sem Eg vil giefa þier til Dætra, Enn ecke ut af þijnum Saattmaala

62. Helldur vil Eg uppreisa minn Saattmaala vid þig, so ad þu skallt formerkia ad Eg er DROTTinn.

63. So þu minnest a þad, og skammest þijn, og þu dyrfest ei ad uppluka þinn Munn fyrer Kinnroda saker, Nær ed Eg vil fyrergiefa þier allt þetta, sem þu hefur giort, seger DROTTinn DROTTinn.

# XVII. Capitule.

Ezechiel (I) talar um, ad Jechonias Kønungur, er hafde giorst Meinsæres-Madur, skylde flytiast til Babylon; og sijdan (II) Spaaer hann um Christum þann Retta Vijn-Kvist.

I. Og Ord DROttins skiede til mijn, og sagde.

2. Þu Mannsins Son! Frammsettu Israels Huse eina Raadgaatu, og eina Epterlijking.

3. Og segdu, So seger DROTTinn DROTTinn, Ein stor (a) Ørn med miklum Vængium, og løngum Fiødrum vel fidrudum, med adskilianlegum Litarhætte, kom uppa Libanon, og took Toppenn af Cedrus-Vidnum.

(a) (Ørn) Gydingar j Jerusalem spottudu Spaamennena, og þad Folk sem sig hafde giefed til Kongsins af Babylon, og hafde læted færa sig til Babylon, þar fyrer predikar Ezechiel hier, ad þeir sem epter voru j Babylon skylldu, og so hlioota j burt þadann ad vijkia, med þeim sem voru fallner fraa Kongenum af Babylon, og treystu uppa þa Hiaalp þeirra Egyptsku. Sa firsta Ørn er Kongur af Babylon, Hæfste Kvistur af Libanon er Kong Jechonias, hvørn Babylons Kongur burt flutte, Kramara Land er Babylon, Sæded, Þad sem laust var nidur saad, er Zedechias, hann leitar Stirks hiaa Egyptalands Konge, hann er su ønnur Ørnenn, enn þad hiaalpar hønum ecke.

4. Og braut af þann hæsta Kvistenn, og flutte hann j Kramara Landed, og sette hann j Kaupmanns-Borgena.

5. Hann took og eirnenn Sæded af þvi sama Lande, og saade þvi j þad sama Goda Landed, þar sem mikel Vøtn eru, og sette þad lauslega nidur.

6. Og þad vox upp, og vard eitt utbreidt Vijnvidar-Trie, og þo laag-vaxed, þviad Greinernar þar a beygdu sig nidur ad þvi, og Ræturnar þar a voru under þvi, og þad var soddan eitt Vijnvidar-Trie, sem fieck Kviste og Greiner.

7. Og þar var ein ønnur stoor Ørn, med miklum Vængium, og møgrum Fiødrum, Og Sioa þu! Vijnvidar-Tried hafde eirn Gyrndar-Hug j sijnum Rootum til þeirrar somu Arnarennar, og utþande sijna Vijnvidar-Kvistu a mote henne, so ad þeir skylldu vokvast af hennar Plontunar-Stad.

8. Og þad var þo grodursett a einu Friosomu Lande, hiaa mørgum Vøtnum, so ad þad hefde vel maatt faa Kvistu, og bera Avøxt, og verda eitt aagiætt Vijn-Vidar-Trie.

9. So seg þu nu, So seger DROTTinn DROTTinn, Skyllde þad vel luckast? Jaa, Menn munu upprijckia þess Rootum, og afrijfa þess Avøxt, og þad skal uppþorna, so ad øll Fullvaxenn Blod þar a skulu j burt visna, og þad skal ecke skie fyrer eirn stoorann Armlegg, eda fyrer mikenn Mannfiølda, uppa þad ad Menn skule j burt flytia þad fra sijnum Rootum.

10. Sioa þu! Vel er þad grodursett, Enn skyllde þvi luckast þar med? Jaa, So snart sem Austann-Vindurenn kiemur vid þad þa mun þad j burt visna, j þeim sama Stad sem þad vox upp.

11. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

12. Kiære! Seg þu til þess Ohlyduga Husfens, Vited þier ecke hvad þetta er? Og segdu, Sioa þu, Kongurenn af Babylon kom til Jerusalem, og tok hennar Kong, og hennar Høfdingia, og flutte þa j burt til sijn j Babylon.

13. Og tok eirn af þvi Konunglega Sædenu, og giørde eirn Saattmaala vid hann, og tok eirn Eyd af hønum, Enn þa hina Volldugu j Landenu tok hann j burt.

14. So ad Kongs-Rijked skyllde verda læckad þar med, og þad tæke sig ecke upp, so þad hans Saattmaale skyllde halldenn verda og stødugur standa.

15. Enn

15. Enn þad sama (Sæde) fiell fra honum, og sende sinn Bodskap til Egyptalands, ad þeir skylldu senda sier Hesta, og margt Folk. Skyllde honum þad vel luckast? Skyllde sa undan komast sem soddann giorer? Og skyllde hann undann komast sem rysur Soattmoalann?

16. So Sannarlega sem Eg lise, seger DROTTinn DROTTinn, j þeim Stad þess Kongsins, sem hann sette til Konungs, hvors Eid hann hefur foraktad, og hvors Soattmoala hann hefur rosed, þa skal hann deya, sem er til Babylon.

17. Og Pharao skal ecke veita honum Stirk j Strijdenu, med miklu Herlide, og morgu Folke, nær ed Menn hlada upp Virkes-Gardana, og byggia upp Her-Kastalana, so ad margur skule j Hel sleigenn verda.

18. Þviad, med þvi ad hann forsmoade Eidenn, og braut þann Soattmoala, sem hann gaf sijna Hond uppa, og giorer allt soddann, þa skal hann ecke undan komast.

19. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn so, So Sannarlega sem Eg lise, þa vil Eg innfæra Minn Eid, þann sem hann foraktade, og Minn Soattmoala, þann sem hann braut, yfer hans Hofud.

20. Þviad Eg vil kasta mijnu Nete yfer hann, og hann skal hondladur verda j mijnum Veideskap, og Eg vil flytia hann j Babylon, og þar vil Eg ganga j Laga-Dom vid hann, af þvi, ad hann hefur so forbroted sig vid Mig.

21. Og aller hans Medhallds-Menn, sem flya med honum, þeir skulu falla fyrer Sverde, og þeir sem epter blijfa þa skulu j burt dreyfder verda, j allar Atter Vindanna, og þeir skulu formerkia, ad Eg DROttinn hefe talad þetta.

II. 22. So seger DROTTinn DROTTinn, Eg vil og taka af Toppinum a þvi hoasa Cedrus-Trienu, og Eg vil briota eirn Smæavaxenn (b) Kvist af þeirre Hærstu-Greinenne þar er a.

(b) (Kvist) það er, Christum, hann er af þvi hoasa Cedrus-Trie, þad er af Guds Folke og Davids Ætt.

23. Og Eg vil grodursetia hann uppa einu Hoasu samanhlodnu Fialle, sem er a Israels Hoasu Fialle, ad hann skal foa Greiner og bera Avoxt, og blijfa eitt vegsamlegt Cedrus-Trie, So ad allra-handa Fuglar kunne ad bua under honum, og allt þad sem floged getur kunne ad vera under Skugganum hans Greina.

24. Og oll Landsins Trie skulu fornema ad Eg DROTTinn hafe nidurþryckt þvi Hoasa Trienu, og upphafed þad hid nidurþryckta Tried, og giort þad Græna Tried þurt, og þad þurra Tried Grænt. Eg DROTTinn tala þetta, og giore þad eirnenn.

## XVIII. Capitule.

Ezechiel (I) kenner, ad Sa Madur sem Syndgar skule deya; Einnig seger hann fra (II) ad hinn Ogudlege kunne ad frelsast; Og (III) hinn Rettloate ad verda Tortijndur.

I. Og Ord DRottins skiede til mijn, og sagde,

2. Hvada Moalshætte er þad Þier hafed j Israels Lande, og seged? Fedurner oatu þad beiska Vijnbered, enn Barnanna Tennur hafa sliofgast þar af.

3. So Sannarlega sem Eg lise, seger DROTTinn DROTTinn, Þa skal soddann Moalshoattur ecke meir ganga a medal ydar j Israel.

4. Þvi sioaed! Allar Soaler eru Mijnar, Fodursins Soal er jafnvel mijn, so sem Soalenn Sonarens, Hvor Soal sem syndgast Hun skal deya.

5. Nær ed nockur er nu Fromur, og breyter Riettvijslega og vel.

6. Hvor ed eige etur a Fiollum, Hvor ed eige upplypter sijnum Augum til Afguda Hussens Israels, og saurgar eige Eigenn-Konu Noaunga sijns, og liggur eige med Konunne j hennar Krankleika.

7. Hvor ed öngvum Manne giörer Skada, Hvor ed Skullda-Mannenum fær sinn Pant aptur, Hvor ed ecke griipur neitt fyrer ödrum med Vallde, Hvor ed utskipter sijnu Braude med Hungrudum, og klæder þann sem Nakenn er.

8. Hvor ed ecke fremur neitt Okur, Hvor ed ecke aaseilist, hvor ad j burt snyr sinne Hende fra Rongu, Hvor ed dæmer riett a mille Manna.

9. Hvor ad geingur epter Mijnum Riettindum, og helldur Mijn Bodord, ad hann giöre þar alvarlega epter, Sa er Riettlaatur Madur, hann skal lifa seger DROTTinn DROttinn.

10. Enn ef hann gietur eirn Son, og verdur hann eirn Mordinge, sem utheller Blodenu,

11. Eda giörer eitthvört af þessum Verkum, og giörer ecke neitt af hinum ödrum Verkunum, helldur etur a Fiöllum uppe, og saurgar Hüsfreyu Raunga sijns.

12. Giörer Skada hinum Fataæka og Volada, tekur nockud med Vallde, giefur ecke aptur þad sem til Panta var sett, Upplypter sijnum Augum til Afgudanna, hvar med hann giörer eina Svijvirding.

13. Leanar ut med Okre, aa-seylist, Skyllde sa lifa? Hann skal ecke lifa, helldur, med þvi hann giörde alla soddann Svijvirding, þa skal hann Dauda deya, Hans Blod skal yfer honum vera.

14. Enn ef hann gietur eirn Son sem sier allar soddann Synder, þær ed hans Fader giörer, og er Ottasleigenn, og giörer eige so.

15. Etur ecke a Fiöllum uppe, og hefur ecke sijn Augu upp til Afguda Hussens Israels, Saurgar ecke Eigenn-Konu Raunga sijns.

16. Giörer öngvum Skada, og helldur ecke inne þvi sem j Panta var sett, tekur ecke neitt med Vallde, utskipter sijnu Braude med Hungrudum, og klæder þann sem nakenn er.

17. Sa sem burt snyr sinne Hende fra Raungu, tekur ecke uppa Okur nie Asetning, Helldur vardveiter Mijn Bodord, og lifer epter Mijnum Riettindum, sa skal ecke deya fyrer sijns Fodurs Misgiörda Saker, helldur lifa.

18. Enn hans Fader, sem Ranginden og Ofrijked framde, og giörer þad, a medal sijns Folks, sem ecke dugde, Sia þu! Sa hinn same skal deya, fyrer sinna Misgiörda Saker.

19. So seged þier, Hvar fyrer skal Sonurenn ei bera sijns Fodurs Misgiörning? Fyrer þad, ad hann giörde vel og riettvijslega, og hann hiellt og giörde öll Mijn Riettinde, þa skal hann lifa.

20. Þviad hvör Saala sem syndgast, Hun skal deya. Sonurenn skal ecke bera Fodursins Misgiörning, og Faderenn skal ei bera Sonarins Misgiörning, Helldur skal Riettlæted hins Riettferduga vera yfer honum, og Ranglæted hins Ranglaata skal vera yfer honum.

II. 21. Enn ef sa hinn Ogudlege sier burt snyr j fra öllum sijnum Syndum, sem hann hefur giört, og vardveiter öll mijn Bodord, og giörer riett og vel, þa skal hann lifa og ecke deya.

22. Allar hans Yfertrodslur, sem hann hefur giört, skulu ecke aaminnstar verda, helldur skal hann lifa fyrer sijns Riettlætis saker, sem hann giörer.

23. Þeinker þu? þad Eg hafe Þocknan a Dauda hins Ogudlega (seger DROTTinn DROTTinn) og ecke miklu helldur ad hann j burt snue sier fra sijnu Athæfe, og life.

III. 24. Og ef hinn Riettlaate j burt snyr sier j fra sijnu Riettlæte, og breyter vondslegana, og lifer epter öllum Svijvirdingum sem hinn Ogudlege hann giörer, Skyllde hann lifa? Ja, allt hans Riettlæte, sem hann hefur giört, skal ecke j Minne leggiast, helldur skal hann deya j sijnum Misgiörningum og Syndum, sem hann hefur giört.

25. Enn

25. Enn þo seged þier, ad DROTTinn hondle ecke Riettelega. So heyred nu, Þier af Huse Jsraels! Er þad eige so? Eg hefe Riett, og þier hafed Oriett?

26. Þvi nær ed hinn Riettferduge snyr sier i burt fra sijnu Riettlæte, og breyter Vondslegana, þa hlytur hann ad deya, Enn þo skal hann deya fyrer saker sioalfs sinnar Illsku, sem hann giorde.

27. Þar j moote, Nær ed hinn Ogudlege j burt snyr fra sijnu Roanglæte, sem hann hefur giort, og breyter nu Riett og Vel, þa skal hann hallda sinne Soalu lifande.

28. Þvi first hann sier sig um, og j burtu snyr sier fra allre sinne Illsku, sem hann hefur giort, þa skal hann lifa, enn ecke deya.

29. Enn þo segia þeir af Jsraels Huse, ad DROTTinn hann hondle ecke riett. Skyllde Eg hafa Oriett? Þier af Jsraels Huse hafed Oriett!

30. Þar fyrer vil Eg Dæma ydur, þier af Huse Jsraels! Hvorn epter sijnu Tilverkan, seger DROTTinn DROTTinn. Þar fyrer þa umvended ydur af øllum ydar Yfertrodslum, so ad þier falled ecke fyrer ydarra Misgiorda saker.

31. Burt fleyged fra ydur øllum ydar Yfertrodslum, medur hvorium þier hafed Afvegageinged, og giored ydur eitt Nytt Hiarta, og eirn Nyann Anda! Þvi hvar fyrer villtu so deya? þu Jsraels Hus!

32. Þviad Eg hefe ei neina Villd a þess Dauda, sem deyr, seger DRottinn DRottinn, þar fyrer Snued ydur, og skulud þier lifa!

## XIX. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Fangelse nockra Konunga j Juda; so og (II) um Eymdar-Stand og Eydelegging Juda Kongs-Rijkes.

I. 1. Enn þu gior eirn Hriggdar-Great yfer Jsraels Hofdingium.

2. Og seig þu! Hvar fyrer liggur þijn Moder Leoninnann a medal Leonanna,

3. Og uppelur sijna Unga a medal þeirra ungu Leonanna? Hun uppfædde eirn af þeim, og þar af vard eitt (a) ungt Leon, hann vande sig a þad ad rijfa Menn j sundur, og eta þa.

(a) (Ungt Leon) Merker Joachas, Kongenn af Juda, hvørn ed Egyptalands Kongur burt flutte.

4. Þa ed Heidingiarner heyrdu nu þetta af honum, noadu þeir honum j sijnum Grøfum, og fluttu hann j Vidium til Egyptalands.

5. Þa ed hans Moder soa nu, ad hennar Von var ute, þar ed hun hafde leinge epter vonad, þa tok hun einn (b) annann af sijnum Ungum, og giorde eitt ungt Leon af honum.

(b) (Annann) Þad merker Joachim, Juda Kong, hvørn ed Nabochodonosor Herleidde.

6. Þa ed hann gieck nu a medal Leonanna, þa vard hann eitt ungt Leon, sa vande sig og a þad, ad rijfa Folked j sundur, og eta þad.

7. Hann lærde þad, ad þeckia þeirra (c) Eckiur, og j Eyde lagde þeirra Stade, so ad Landed, og allt þad sem þar var jnne, hrædest hans Greniunar-Hlood.

(c) (Eckiur) Þær hafa øngva Verndar-Hlijf, þar fyrer hliota þær ad laata sig Angra og minka sem anded verdur.

8. Þa løgdu Heidingiarner sig af øllum Løndum allt j kringum, og køstudu einu Nete yfer hann, og noadu honum so j sijnum Grøfum.

9. Og hneptu hann bundenn j eina Glugga-Grind, og fluttu hann so til Kongsins af Babylon, og þeir lietu jnnebyrgia hann, so ad hans Raust skyllde ecke meir heyrast a Jsraels Fiollum.

II. 10. Þijn Moder var sem eitt Vijn-Vidar-Trie, Eins lijka sem þu, groodursett hia Vatnenu, og hennar Avøxtur og Greiner þær spruttu af þvi mikla Vatnenu.

11. So ad hennar Kvister urdu so sterker, ad þeir dugdu til Stiornar-Sprota Yfervallds-Herranna, og urdu hærer a medal Kvis-

Kvistanna. Og þa ed þeir sau, ad þad var so hatt, og hafde so marga Kvistu,

12. Vard þvi upp ryckt, og a Jordu nidur kastad j Grimmd, Austan-Vindurenn uppþurkade Avoxtenn þar a, og þær sterku Greinernar þar a urdu j sundur brotnar, so ad þær visnudu og upp brenndust.

13. Enn nu er þad grodursett a Eydemørkenne, j einu þurru þyrstu Lande.

14. Og þar er eirn Elldur utgeingenn, af þeim sterku Kvistunum þar uppa, sem foreydde þeim Avoxtunum, sem þar voru a, so ad þar er eingenn sterkur Kvistur a þvi meir, sem hæfur er til Stiornunar-Sprota, Þad sama er eirn aumlegur og hørmulegur Hlutur!

## XX. Capitule.

Ezechiel straffar (I) Hræsne, og (II) Afguda-Dijrdkan.

I. Þad bar so til a þvi Siøunda Aarenu, þann Tijunda Dagenn j þeim Fimmta Maanudenum, þa komu nockrer af Olldungunum j Jsrael, ad spyria DROTTinn, og settu sig nidur fyrer mier.

2. Þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde.

3. Þu Mannsins Son! Tala þu til Olldunganna Jsraels, og segdu til þeirra, So seger DROTTinn DROTTinn, Erud þier komner til ad spyria Mig? So Sannarlega sem Eg life, þa vil Eg ei vera adspurdur af ydur, seger DROTTinn DROTTinn.

II. 4. Enn villtu Mannsins Son! umvanda vid þa, þa maattu a þennann Veg finna ad vid þa, Laat þa fa ad vita Svijvirdingena sinna Forfedra.

5. Og seg þu til þeirra, So seger DRottinn DRottinn, A þeim Tijma þa ed Eg utvalde Jsrael, Upphoof Eg Mijna Hønd til Sædesins Hussens Jacobs, og Eg auglyste Mig fyrer þeim j Egyptalande. Jaa, Eg hoof mijna Hønd upp til þeirra, og sagde, Eg er DROttinn ydar Gud.

6. Og Eg (a) upphoof mijna Hønd þann sama Tijma, ad Eg leidde þa af Egyptalande, j þad Landed er Eg hafde fyrerhugad þeim, þad sem rynne med Miolk og Hunange, Eitt agiætlegt Land fyrer ollum Londum.

(a) (Upphoof) Þad er, Eg liet sia hvad relegur eg var hia þeim.

7. Og Eg sagde til þeirra, Sierhvør kaste j burt Svijvirdingunne fra sijnum Augum, og saurged ydur ecke a þeim Egyptalands Afgudum, þviad Eg er DROTTinn ydar Gud.

8. Enn þeir voru Mier ohlyduger, og villdu ecke heyra Mier, og eingenn af þeim burtkastade þeirra Svijvirdingum fra sijnum Augum, og yfergaafu ecke þa Egyptalands Afgude. Þa þeinkte Eg ad uthella Minne Grimmd yfer þa, og laata alla mijna Reide koma yfer þa, þa þegar i Egyptalande.

9. Enn Eg giørde þad ei, fyrer mijns Nafns saker, so ad þad skyllde ecke vanhelgad verda fyrer Heidnum Þiodum, a medal hvørra þeir voru, og fyrer hvørium Eg hafde Mig Augliosann giørt, j þvi, ad Eg villde utleida þa af Egyptalande.

10. Enn þann Tijd Eg hafde utleidt þa af Egyptalande, og leidt þa burt j Eydemørkena,

11. Þa gaf Eg þeim Mijn Bodord, og kiennde þeim Mijn Riettinde, * fyrer Hvør ed Madurenn lifer, sa sem helldur þau.

*Rom. 10, 5. Gal. 3, 12.

12. Eg gaf þeim og eirnenn Minn Sabbaths-Dag, til eins Teikns a millum Mijn og þeirra, so ad þeir visse þar af, ad Eg er Sa DROTTinn sem þa Heilaga giører.

13. Enn Jsraels Hus var Mier ohlydugt, eirnen lijka j Eydemørkenne, og lifdu ei epter Mijnum Bodordum, helldur fyrerlitu þeir Mijn Riettinde, fyrer hvør ad Madurenn lifer, sa sem helldur þau, og þeir saurgudu næsta miøg Mijna Sabbaths-Daga. Þa þeinkte Eg ad uthella Minne Grimmd yfer þa j Eydemørkenne, og foreyda þeim med ollu.

14. Enn Eg giørde þad ei, fyrer Mijns Nafns saker, so ad þad skyllde ecke vanhelgad verda a medal Heidingianna, j fra hvørium Eg utleidde þa.

15. Og

15. Og Eg upphof Mijna Hond a moote þeim j Eydemørkenne, ad Eg villde ei innleida þa j þad Landed sem Eg hafde giefed þeim, þad er flytur med Miolk og Hunange, eitt ágiætt Land yfer øll Lønd.

16. Af þvi þeir fyrerlitu Mijn Riettinde, og lifdu ecke epter Mijnum Bodordum, og saurgudu Minn Sabbaths-Dag, Þviad þeir geingu epter Afgudum sijns Hiarta.

17. Enn Mitt Auga vægde þeim, ad Eg fortijnde þeim eige, og þad Eg fyrerfoor þeim ecke med øllu a Eydemørkenne.

18. Og Eg sagde til Barna þeirra, a Eydemørkenne, Þier skulud ecke lifa efter Bodordum Fedra ydvara, og ecke vardveita þeirra Riettinde, og ecke saurga ydur a þeirra Skurgodum.

19. Þviad Eg er DROttinn ydar Gud, Þier skulud lifa epter mijnum Bodordum, og þier skulud hallda mijn Riettinde, og giora þar epter.

20. Og þier skulud helga Mijna Sabbaths-Daga, ad þeir skulu vera eitt Teikn a millum Mijn og ydar, so ad þier skulud vita ad Eg er DROTTinn ydar Gud.

21. Enn Børnenn voru Mier eirnenn Ohlydug, og lifdu ecke epter Mijnum Bodordum, Vardveittu og ei helldur Mijn Riettinde, ad þeir giordu þar epter, fyrer hvør ad Madurenn lifer, Sa sem þau vardveiter, og þeir vanhelgudu Mijna Sabbaths-Daga. Þa þeinkte Eg ad uthella Minne Grimmd yfer þa, og lata alla Mijna Reide geisa yfer þa a Eydemørkenne.

22. Enn Eg snere Minne Hende um, og giorde þad ei, fyrer Mijns Nafns Saker, so ad þad skyllde ecke vanhelgad verda fyrer Heidingiunum, j fra hvørium Eg hafde utleidt þa.

23. Eg upphof eirnenn Mijna Hond j moote þeim, a Eydemørkunne, ad Eg j burt dreifde þeim a medal Heidingianna, og j sundurtvijstrade þeim j Londin.

24. Af þvi, ad þeir hielldu ei Mijn Bodord, og fyrerlitu Mijn Riettinde, og vanhelgudu Mijna Sabbaths-Daga, og litu epter Afgudum Fedra sinna.

25. Þar fyrer yfergaf Eg þa j þann Lærdomenn sem (b) ecke er godur, og j þau Riettindenn j hvørium þeir kunna ecke ad hafa Lijfed.

(b) (Ecke godur) Sa Riette Guds Lærdomur er Fridur, Glede, og Lijf, j Heilogum Anda, Enn Mannanna Lærdomur er ecke utann Ofridur, Hiarta-Sorg og Daude, þvi hann lætur Samviskuna hvørke hafa Roo nie Frid, Enn þo þeir giøre mikla Hlute, so sem þegar þeir offra miklu, og uppbrenna sijn elskulegustu Børn, so sem hier seger j Textanum, og etc.

26. Og j burt kastade þeim, med sijnu Offre, þar ed þeir uppbrenndu alla sijna Frumgietninga med Ellde, hvar med Eg eydde þeim, so ad þeir mætte læra ad Eg er DROttinn.

27. Þar fyrer tala þu Mannsins Son! Vid Israels Hus, og segdu til þeirra, So seger DROttinn DROttinn, Ydrer Forfedur hafa enn nu framar lytt Mig og lastad.

28. Þviad þa Eg hafde innleidt þa j Landed, yfer hvørt ad Eg hafde Mijna Hond upphafed, ad Eg villde giefa þeim þad, hvar ed þeir sau eitt hatt Fiall, edur þickvaxed Trie, þar offrudu þeir sijnar Foorner, og baru sijnar hatuglegar Giafer þangad, og reykiudu þar sijnum Sætleiks-Ilm, og uthelltu þar sijnu Dryckiar-Offre.

29. Enn Eg sagde til þeirra, Hvad skulu þo þessar Hæder, til hvørra Þier ganged? Og so kallast þad Hæder allt til þessa Dags.

30. Þar fyrer seg þu til Israels Hus, So seger DROTTinn DROTTinn, Þier saurged ydur j Athæfe Fedra ydvara, og fremied Hooraner med ydrum Svijvirdingum.

31. Og saurged ydur med ydrum Afgudum, til hvørra þier offred ydar Giafer, og uppbrenned Syne ydar og Dætur med Ellde, allt til þessa Dags, Og skyllde Eg lata Ydur af Israels Huse! spyria Mig? So Sannarlega sem Eg life, seger DROttinn DROttinn, Þa vil Eg vera ospurdur af ydur.

32. Par til ad auk þa þeinked so, Vier vilium giora so sem Heidingiar, og so sem annad Folk j Londunum, og tilbidia Stocka og Steina, Pad skal bregdast ydur.

33. So Sannarlega sem Eg life, seger DROTTinn DROTTinn, Eg vil Drottna yfer ydur med Oflugre Hende, og Utriettum Armlegg, og med uthelltre Grimmd.

34. Og Eg vil utleida ydur fra þeim Piodum, og af þeim Londunum, sem þier erud j burt dreifder til.

35. Og samansafna ydur þar, med Oflugre Hende, og Utriettum Armlegg, og med uthelltre Grimmd. Og Eg vil j burtleida ydur a (c) Eydemerkurnar Folksins. Og ganga þar j Laga-Dom vid ydur, fra Auglite til Auglitis.

(c) Lijka fyrer utann þa Babyloniskn Herleiding.

36. Lijka sem ad Eg gieck j Dom vid Forfedur ydar a Eydemørkenne hia Egyptalande, eins lijka so vil Eg ganga j Dom vid ydur, seger DROTTinn DROTTinn.

37. Eg vil færa ydur under Hirtingar Vøndenn, og þvinga ydur under Bondum Sattmaalans.

38. Og þeir sem falla fra Mier, og briota j mote Mier ydar a mille, þeim vil Eg burt sopa, Jaa, ur þvi Landenu sem nu bua þeir j, og laata þa ecke koma j Jsraels Land, so ad þier skulud læra ad Eg er DROttinn.

39. Par fyrer, Pier af Jsraels Huse! So seger DRottinn DRottinn, First ad þier viljed ecke Mier hlyda, so fared j burt, og þione hvor ydar sijnum Afgudum, Enn laated hiedan j fra Mitt Heilaga Nafn vera oskammad med ydrum Fornfæringum og Afgudum. Pviad so seger DRottinn DRottinn.

40. Uppa mijnu Heilogu Fialle, A þvi haafa Jsraels Fialle, Par skal allt Jsraels Hus, og aller þeir sem j Landenu eru, þiona Mier, þar skulu þeir þocknast Mier, og þar vil Eg krefia ydvars Upphafningar-Offurs, og ydvarra Frumsorna, med ollu þvi þier helged Mier.

41. Pier skulud Mier þocknast med þann Sætleiks-Ilmenn, nær ed Eg utleide ydur fra Folkenu, og saman safna ydur af Londunum, til hvorra ad þier erud j burt dreifder, og Eg vil Helgadur verda j ydur fyrer Heidingiunum.

42. Og þier skulud faa ad vita, ad Eg er DROTTinn, Nær ad Eg hefe jnnleidt ydur j Jsraels Land, j þad Landed, yfer hvort ad Eg upphoof mijna Hond, ad Eg villda giefa ydar Fedrum þad.

43. Par munud þier minnast a ydar Breytne, og a alla ydar Giorninga, medur hvorium þier erud saurgader, og ydur mun aangra allar Illgiorder sem þier hafed giort.

44. Og þier skulud formerkia ad Eg er DROTTinn, Nær ad Eg giore vid ydur, fyrer Mijns Nafns saker, enn ecke epter ydvarre vondre Breytne, og Skadsamlegum Giorningum, Pu Jsraels Hus! seger DRottinn DROttinn.

## XXI. Capitule.

Ezechiel fyrerseger Jerusalem O-Frid og Hernad (I) med Ordum; og (II) med Teiknum.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

2. Pu Mannsins Son! Set þu þitt Andlit a mote Sudrenu.

3. Og laat driupa mote Sudrenu, og Spaadu a mote Skogenum a Mørkenne, a mote Sudrenu. Og seg þu til Skoogarins mote (a) Sudrenu, Heyr þu Ord DRottins! So seger DROTTinn DROTTinn, Sioa þu! Eg vil upkveikia eirn Elld j þier, ad hann skal bæde foreyda Blomgudum Triaam, og þurrum Vidum, so Mann skal ecke kunna ad ut slockva hans Loga, helldur allt þad sem stendur fra Sudrenu, jnn til Nordursins, þad skal uppbrennt verda.

(a) (Sudrenu) Jerusalem liggur j Sudurætt fra Babylon, Nu var Ezechiel j Babylon, og talar um Jerusalem, og kallar hana Skoog moot Sudrenu.

4. Og allt Hollð skal þad sioa, ad Eg DROTTinn hafe kveikt hann, og eingenn skal kunna ad utslockva hann.

5. Og eg sagde, Æ DRottinn DRottinn! Þeir segia um mig, Þesse talar ecke utañ Mirk-Yrde.

6. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

7. Þu Mannsins Son! Set þitt Auglit a mote Jerusalem, og lᴂat driupa a moote Helgedomenum, og spᴂa þu a mote Jsraels Lande.

8. Og seg þu til Jsraels Lands, So seger DROTTinn DROTTinn, Sioa þu! Eg vil til vid þig, Eg vil draga Mitt Sverd ur Slijdrum, og Eg vil afmᴂa j þier bæde Riettlᴂatann og Rᴂanglᴂatann.

9. Enn med þvi, ad Eg vil uppræta j þier bæde Riettlᴂatann og Rᴂanglᴂatann, so skal Mitt Sverd utfara af Slijdrunum yfer allt Hollð, j fra Sudrenu, allt til Nordursins.

10. Og allt Hollð skal reyna ad Eg DRottinn hafe utdreiged Mitt Sverd, ur sijnum Slijdrum, og þad skal ecke slijdrast aptur.

11. Og þu Mannsins Son! skallt stynia, þangad til ad þijnar Lendar taka ad sᴂrna, Jᴂ, þu skallt stynia beisklegana, so ad þeir sioae þad.

12. Og nær ed þeir segia til þijn, Hvarfyrer stynur þu so? Þa skalltu segia, Fyrer þess Hroops saker sem þar kiemur, fyrer hvoriu ad oll Hiortu munu Duglaus verda, og allar Hendur fallast, allra Hughreyste nidur falla, og oll Knie munu renna sem Vatn, Sioa þu! þad kiemur, og þad skal skie, seger DROttinn DROttinn.

II. 13. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

14. Þu Mannsins Son! Spᴂadu, og segdu, So seger DROttinn, Seg þu, Sverded, Jᴂ, Sverded er hvesst og fægt.

15. Þad er hvasst giort, so ad þad skule drepa, þad er fægt, so ad leiptra skal af þvi. O hvorsu glader villdum vær vera, þo ad hann giore oll Trien ad (b) Hrijs-Vondum, handa þeim hinum vondu Bornum!

(b) (Hrijs-Vondum) Hañ hootar ad Straffed skule ecke vera Vandar Høgg, edur Barna Straff, hvar Umboot kañ epter ad filgia, helldur ad þar skule vera eingis Reide, ute og endad, þar fyrer voskar hann, ad þar være eitt hvasst Hrijs, Jᴂ, ad oll Trie være giord ad Hrijse, Enn þo so, ad þau være ecke einkomis Reide, Enn hann seger sijdann, Gud hefur opt reynt til med Hrijsenu, enn þad hefur ecke viliad hiᴂlpa, þar fyrer hlytur nu Sverded ad koma.

16. Enn Hann hefur lᴂted fægia eitt Sverd, so Menn skulu taka þad, þad er bryt og fægt, so þad verde giefed honum j Hond sem j hel skal sloa.

17. Kalla hᴂtt og Æp, þu Mannsins Son! Þviad þad geingur yfer Mitt Folk, og yfer alla Stiornendur j Jsrael, sem samansafnader eru under Sverded, ᴂsamt med mijnu Folke. Þar fyrer sloa þu a þijnar Lendar.

18. Þviad hann hefur optlega refsad þeim, Enn hvad hefur þad hiᴂlpad? Sa Vondurenn hinna vondu Barnanna vill ecke stoda, seger DROTTinn DROTTinn.

19. Og þu Mannsins Son! Spᴂadu, og sloa þijnum Hondum til samans. Þviad Sverded skal koma tvefallt, Jᴂ, þrefallt, Eitt Dreaps Sverd, eitt stoort Manndreaps Sverd, hvort ad einnenn hitta skal a þa j Herbergiunum, þangad sem þeir flya.

20. Eg vil lᴂta Sverded saungla, so ad Hiortunn skulu duglaus vera, og marger skulu falla j allra þeirra Borgar-Hlidum. Avi! Hvorsu leiptrar þad, og vedur ᴂfranim til Hoggsins! og segia,

21. Veg þu bæde til Hægre og Vinstre Hlidar, hvad sem fyrer er.

22. Þa vil Eg Mijnum Loofum til samans klappa þar yfer, og lᴂta mijna Reide geisa, Eg DROTTinn sagde þetta.

23. Og Ord DROttins skiede til mijn, og sagde.

24. Þu Mannsins Son! Gior Tvo Vegu, um hvøria ad koma skal Kongsins Sverd af Babylon, Enn þeir baader skulu ganga fra einu Lande.

25. Og set eitt Merke framm fyrer a Veigenn giegnt Stadnum, sem vijsar ad hønum.

26. Og gior so Veigenn, ad Sverded kunne ad koma til Rabbath Ammons Barna, og j Juda, til þeirrar sterku Borgarennar Jerusalem.

27. Þviad Kongurenn af Babylon mun setia sig þar a, er Veguna skilur, þad fremst a þeim tveimur Vegunum, ad laata spaa þar fyrer sier, og skiota þar med Orvar-Skeytum, um Hlutfalled, adspyriande so sijna Afgude, og skodande Lifrena.

28. Og Spaasøgnenn skal vijsa a Hægre Hlidena, j mote Jerusalem, og hann skal laata flytia þar ad Murbriota, og giora Grafer, og yferfalla þa, og nidur drepa med miklu Hroope, og hann skal flytia Murbriotana j mote Borgar-Hlidunum, og byggia þar Gyrdingar og Hervirke.

29. Enn sa Spaadomurenn skal þeim þykia falsklegur vera, hann maa sveria so stort sem hann vill, Enn þo mun hann þeinkia uppa Misgiorningenn, ad hann skule vinna hana.

30. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn so, Fyrer þad, ad a ydur verdur minnst fyrer saker ydvarra Misgiorninga, og ydar Ohlydne er openber, so ad Mann kann ad sia ydar Synd, j øllum ydar Giorningum, Jaa, þar fyrer, ad ydar verdur minnst, þa skulud þier med Vallde Hertekner verda.

31. Og þu Israels Høfdinge! Þu sem ert dæmdur og urskurdadur, hvørs Dagur ed kema skal, nær ed Misgiorningurenn er til Enda komenn.

32. So seger DROttinn DROttinn, Legdu af Høfudklæded, og tak ofann Koronuna, þviad þar mun hvørke Høfud-Klæde, nie Korona til vera, helldur sa sem upphoof sig hann skal nidur lægdur verda, og hinn sem nidur þryckte sier skal upphafenn verda.

33. Eg vil giora Koronuna til einskis, til einskis, til einskis, þangad til ad hann kiemur sem hana skal hafa, hønum vil Eg giefa hana.

34. Og þu Mannsins Son! Spaadu og segdu, So seger DROttinn DROttinn, af þeim Ammons Børnum, og af þeirra Smaan, og seg þu, Sverded, Sverded er utdreiged til ad slaa j Hel, þad er uppfægt, ad þad skule nidur drepa, og þad skal leiptra af þvi.

35. Þar fyrer, ad þu lietst segia þier falsklegar Sioner, og spaa þier Lygar, hvar med þu skallt yfer giefenn verda a medal þeirra hinna helslegnu Ogudlegu, hvorra Dagur ad kom þa ed Misgiorningurenn var komenn ad Enda.

36. Og þo ad Sverded slijdrest enn aptur, þa vil Eg þo samt dæma þig j þeim Stad sem þu ert skopud, og j þvi Lande sem þu ert fædd. Og Eg vil uthella Minne Reide yfer þig.

37. Eg vil uppblaasa Minn Heiptar-Elld yfer þier, og Eg vil ofurselia þig þvi Folke j Hendur, sem kann ad brenna og fordiarfa.

38. Þu skallt vera Ellds-Matur, og þitt Blood skal uthellast j Landenu, og þijn skal ecke framarmeir minnst verda, þviad Eg DROttinn hefe talad þad.

## XXII. Capitule.

*Ezechiel talar um Jerusalems Synder (I) þær allgengnu hiaa øllum; Og (II) sierdeiles hiaa þeim Andlegu og Veralldlegu.*

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Villtu ecke straffa þann Manndraaps Stadenn, og byrta hønum allar sijnar Svijvirdingar?

3. Segdu, So seger DROTTinn DROTTinn, O Stadur! Þu sem utheller þinna Manna Bloode, uppa þad þinn Tijme skule koma, og þu sem giorer Afgudena hiaa þier, hvar med þu saurgar þig.

4. Þu giorer þig sekann j þvi Bloodenu sem þu utheller, og þu saurgar þig med þeim Afgudum

gudum sem þu giorer, þar med frammleider
þu þijna Daga, og giorer það, ad þijn Aar
hlioota ad koma. Þar fyrer vil Eg giora þig
ad eirure Hædung, medal Heidingianna, og
til eirurar Skammar j ollum Londum.
5. Bæde nærre og fiærre þa skulu þeir
hæda þig, og þu skallt hafa eitt skammarlegt
Ord-Rykte, og lijda stoora Neyd.
6. Sioa þu! Þeir Hofdingiarner j Jsrael,
hvor þeirra er megtugur j hioa þier ad uthella
Bloodenu.
7.* Þeir fyrerlyta Fodur og Moodur,
Hinum Utlenda giora þeir Valld og Oriett,
Þeir plaaga Eckiur og Fodurlaus Born.
* Matth: 15, 5. Marc: 7, 12.
8. Þu forakter Minn Helgedom, og
saurgar Mijna Sabbaths-Daga.
9. Svikarar eru j þier, so ad þeir kunne
ad uthella Bloodenu, Þeir eta upp a Fiollu-
num, og hondla þriotskusamlega j þier.
10. Þeir uppsletta Blygdan Fedra sinna,
og naudga Konunum j þeirra Krank-Dæme.
11. Og þeir fremia Svijvirdingar sijn a
mille, einn Vinur med Husfreyum sijns Vi-
nar, Þeir skamma sijnar eigenn Sona Kvin-
nur med ollum Moot-Þroa, þeir naudga sij-
num eigenn Systrum, Dætrum sijns Fo-
durs.
12. Þeir þiggia Mutur ad uthella Bloode-
nu, þeir giora Okur, og hafa Avinning hvor
a odrum, og fremia sijna Agyrne vid sijna
Naunga, og hvor giorer odrum Ofrijke, og
forgleyma Mier so, seger DRottinn DRot-
tinn.
13. Sioa þu! Eg slæ Mijnum Hondum
til samans, yfer þeirre Agyrne sem þu fre-
mur, og yfer þvi Bloodenu sem uthellt er j þier.
14. Enn þeinker þu, ad þitt Hiarta mune
kunna ad lijda það? Eda þijnar Hendur faae
þolad það, a þeim Tijma, nær ed Eg vil
straffa þig. Eg DROTTINN hefe talad
þetta, Eg vil og eirnenn fullgiora það.
15. Og Eg vil burt dreifa þier a medal
Heidingianna, og uthrekia þig um Londenn,
og Eg vil giora eirn Enda a þinne Obeckt.

16. So ad þu skallt reiknast Bolvud hioa
Heidingium, Og formerkia ad Eg er DRot-
tinn.
17. Og Ord DROttins skiede til mijn, og
sagde,
18. Þu Mannsins Son! Jsraels Hus er
Mier orded ad Skume, Allur þeirra Kopar,
Tin, Joarn og Bly, er orded j Ofnenum ad
Silfur-Skume.
19. Þar fyrer seger DROttinn DROT-
Tinn so, First þier aller erud ordner Skum,
Sioa þu! Þa vil Eg safna ydur ollum til sa-
mans j Jerusalem.
20. Lijka sem ad lagt verdur, Silfur,
Kopar, Joarn, Bly og Tin, til samans, j Of-
nenn, ad þar skule upp bloasast eirn Elldur
under, og j sundur smellta það.
21. Lijka so vil Eg og eirnenn safna ydur til
samans, j Minne Reide og Grimmd, innleg-
gia og smellta ydur, Joa, Eg vil safna ydur,
og uppbloasa Minn Reide-Elld a medal ydar,
so ad þier skulud þar inne broadna nidur.
22. Lijka sem ad Silfur það broadnar ni-
dur j Ofnenum, eins lijka so skulud þier eir-
nenn nidur broadna þar inne, Og reyna, ad
Eg DROttinn hefe uthellt Minne Grimmd
yfer ydur.
II. 23. Og Ord DROttins skiede til mijn,
og sagde,
24. Þu Mannsins Son! Seg þu til þeir-
ra, Þu ert eitt Land, sem ecke kann hreinsad
ad verda, þu hefur og ecke feinged Regn a Rei-
dennar Tijma.
25. Þeir Prophetarner sem eru þar inne,
hafa svared til samans, ad uppeta Saaler-
nar, lijka sem greniande Leon, nær ed það te-
kur fier Broad. Þeir hripsa Gots og Pe-
ninga til sijn, og giora þar margar Eckiur
inne.
26. Þeirra Prestar umsnua troassuglega
Mijnu Logmoale, og saurga Minn Helge-
dom, Þeir hallda ongvann Greinarmun, a
millum þess sem Heilagt er, og hins sem O-Hei-
lagt er, og þeir kienna ecke hvad Hreint edur

O=Hreint sie, og þeir vardveita ecke Mijna Sabbaths=Daga, og Eg verd vanhelgadur a medal þeirra.

27. Þeirra Hofdingiar eru þar jnne lijka sem glepsande Ulfar, til ad uthella Bloodenu, og fyrerfara Sealunum, fyrer þeirra Agyrndar Saker.

28. Þeirra Prophetar kalka þa med laushelldu Kalke, predika Hiegoma=Frietter, og spaa þeim Lygar, og segia, So seger DRottinn DRottinn, Þo ad DROttinn hafe þad ecke talad.

29. Folked j Landenu veiter Yfergang, og ræner diarflega, og þeir kuga hinn Foatæka og hinn Volada, og giora hinum Utlenda Ofrijke og Ranginde.

30. Eg leitade a medal þeirra, hvort nockur sette sig til Mur=Veggs, og stæde a moote Mier, þar sem ur var brosted, vegna Landsins, so ad Eg skyllde ei fordiarfa þad, Enn Eg fann engvann.

31. Þar fyrer uthellte Eg Minne Reide yfer þa, og Eg giorde eirn Enda a þeim, med Mijnum Heiptar=Ellde, og gaf þeim so þeirra forþienud Laun yfer þeirra Hofud, seger DROttinn DROTTinn.

# XXIII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Afguda=Dijrdkan Samariæ, hvar fyrer hun ætte ad straffast fyrer þaa Assyrisku. Og (II) um Afguda=Dijrdkun Jerusalems, hver þar fyrer ætte ad straffast af þeim Chaldeisku.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Þar voru Tvær Konur, eirnrar Modur Dætur.

3. Þær drijgdu Hooran a Egypta=Lande, j Æsku sinne, þær lietu þar taka a sijnum Briostum, og þreifa um sijnar Meydoms Vortur.

4. Hin stærre hiet Ahala, og hennar Syster Ahaliba. Og Eg took þær til Hiuskapar=Bands, og þær fæddu mier Syne og Dætur, og Ahala kallast Samaria, enn Ahaliba Jerusalem.

5. Ahala drijgde Hooran, þa ed Eg hafde hana ad Mier teked, og hun brann fyrer sijnum Filgiu=Monnum, fyrer þeim Assyriansku, sem komu til hennar.

6. Fyrer þeim Hofdingiunum og Herra=Monnum, sem med Silke voru klædder, og fyrer ollum vænum Æsku=Monnum, sem var, fyrer Riddurum og Vognum.

7. Og hun lagdest med ollum Frijdum Monnum j Assyria, og saurgade sig med ollum þeirra Afgudum, hvar ed hun hafde Gyrndar=Bruna til.

8. Þar til yfergaf hun ecke sijna Hooran vid Egypta=Land, sem med henne hafde leiged j fra Barn=Æsku hennar, og þreifad hafde um hennar Meydoms Briost, og framed stoora Hooran med henne.

9. Þa yfergaf Eg hana j Hendur sinna Filge=Manna, Barna þeirra Assyriansku, fyrer hvorium ad hun brann af Losta=Gyrnd.

10. Þeir uppflettu hennar Blygdan, og j burt tooku hennar Syne og Dætur, og þeir jhel sloou hana med Sverde, Og þad barst ut, ad þessar Kvinnur være straffadar.

II. 11. Enn þa ed hennar Syster Ahaliba saa þad, þa brann hun miklu verr enn hin onnur, og drijgde meire Hooraner enn hennar Syster.

12. Og brann fyrer þeim Assurs Bornum, sem er fyrer Hofdingiunum og Herrunum (þeim sem komu til hennar vel buner) Riddurum og Vognum, og fyrer ollum ungum frijdum Æsku=Monnum.

13. Þa saa Eg, ad þær voru baadar saurgadar med sama Hætte.

14. Enn þesse framde stærre Hooran, Þvi þar ed hun saa maalada Menn a Veggium, j Raudum Lit=Klædum, þeirra Chaldeansku Lijkneskiur,

15. Belltada um Lendarnar, hafande mislitar (a) Hufur a sijnum Hofdum (og aller eins ad siaa sem Vollduger Menn) eins og Babylona og Chaldeanskra Born bera j sijnu Fodurlande.

(a) (Hufur)

(a) (Hufur) Heita a Ebresku Seruch, so sem Moses kallar, Exod. 26. Cap. Pad sem var afgangs af Cortinunum, og er ein Hufa, eins og Magistri, og Studentar hofdu fordum, so ad par hangde miked O-naudsynlegt Klæde j kringum Hofuded, Pad voru hær riettu Babylonisku Seruhim, edur Chaldeaniskar Hufur.

16. Brann hun fyrer peim so snart sem hun saa pa, og hun sende Bod til peirra j Chaldea Land.

17. Enn pa ed Babylons Born komu til hennar, ad sofa hiaa henne, epter Kiærleikanum, pa saurgudu peir hana med peirra Hooran, og hun saurgade sig med peim, so ad hun var preytt af peim.

18. Og pa ed bæde hennar Hooran og Skammer voru so nærsta opennberar, pa vard hun Mier og eirnenn leid, lijka sem ad Syster hennar var Mier leid ordenn.

19. Enn hun drijgde sijna Hooran pess meir, og minntest a sinn Barn-Æsku Tijma, pa ed hun framde sijna Hooran a Egypta-Lande.

20. Og brann fyrer sijnum Filge-Monnum, hvor Syrndar-Brune ad var lijka sem annara Asna, og Stod-Hesta.

21. Og Pu (b) skickader pinn Saurlifnad, lijka sem j Æsku pinne, par ed peir j Egypta-Lande preifudu a pijnum Briostum, og struku um pijnar Geir-Vortur.

(b) (Skickader) Pad er, Pu kiennder, fyrer Hond pinna Bisskupa, ad Menn skylldu giora Afguda-Dijrdkan, pu giorer pier Meistara.

22. Par fyrer Ahaliba! So seger DRotTinn DROTTinn, Sioa pu! Eg vil uppvekia pijna Filge-Menn a moote pier, pa sem pier eru leider ordner, og Eg vil safna peim allt j kringum pig.

23. Sem eru Babylons Born, og alla Chaldeanska, med Hofdingiunum, Herrunum, og alla Assyrianska, med peim hinum oasitsamlegustu Æsku-Monnum, alla Hofdingia og Stiornara, Riddara og Frijborna Menn, og allshoattad Rijdande Lid.

24. Og peir munu koma yfer pig, tilbuner med Vognum og Riddara-Lide, og med miklum Folks-Fiolda, og peir skulu setiast um pig, med Buklara, Skiolldu, og Hioalma, allt um kring. Peim vil Eg Doms-Atkvæded j Hendur fea, ad peir skulu dæma pig epter sijnum Logum.

25. Eg vil laata Mijna Vandlæting ganga yfer pig, so ad peir skulu breyta Vægdarlaust vidur pig, peir skulu snijda af pier bæde Nasernar og Eyrunn, og hvad sem epter verdur pad skal falla fyrer Sverde. Peir skulu j burt taka Syne pijna og Dætur, og brenna pad upp med Ellde sem epter verdur.

26. Peir skulu draga pijn Klæde af pier, og j burt taka pitt Skart.

27. So vil Eg giora einn Enda a pijnum Saurlifnade, og a pinne Hooran vid Egypta-Land, so ad pu skallt ecke meir upphefia pijn Augu, og peinkia ecke meir uppa Egypta-Land.

28. Pvi so seger DROttinn DROttinn, Sioa pu! Eg vil j Hendur-selia pig peim sem pier er orded jlla vid, og pier eru Leider.

29. Peir skulu hondla vid pig sem Oviner, og j burt taka allt pad sem pu hefur aflad, og laata pig Nakta og Noturlega, so ad pijn Blygdan, og pinn Saurlifnadur, og Hooran, skule auglios vera.

30. Petta skal pig skie fyrer pijns Saurlifnadar saker, sem pu hefur framed vid Heidingiana, og saurgad pig med peirra Afgudum.

31. Pu hefur genged a Vegum Systur pinnar, par fyrer gief Eg pier eirnenn hennar Kaleik j pijna Hond.

32. So seger DROTTinn DROTTinn, Pu skallt drecka pinnar Systur Kaleik, so diupann og vijdann sem hann er, pu skallt verda til so storrar Hoadungar og Forsmaanar, ad pad skal vera obærelegt.

33. Pu skallt drecka pig fulla af peim sterka Drycknum og Eymdenne, pviad sa Kaleikurenn pinnar Systur Samariæ er eirn Eymdar og Hormungar Kaleikur.

34. Pann

34. Þann skalltu drecka hreint af, þar epter skalltu j sundurkasta Brotunum, og j sundur riisa þijn Brioft, þviad Eg hefe talad þad, seger DROTTinn DROTTinn.

35. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn so, Fyrer þad, ad þu forgleymder Mier, og fleygder Mier a Bak þier aptur, þar fyrer þa ber þu nu eirnenn þinn Saurlifnad og þijna Hooran.

36. Og DROTTinn sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Villtu ei vanda um vid Ahala og Ahaliba, og vijsa þeim sijnar Svijvirdingar?

37. Hvornenn ad þær hafa framed Hoordom, og Bloodenu uthellt, og Hoordom drijgt med Afgudum, þar med uppbrenndu þær, þeim til Offurs, sijn eigenn Born, sem þær fæddu Mier.

38. Ad auk þessa þa hafa þær giort Mier þad, ad þær saurgudu þann sama Tijma Minn Helgedom, og vanhelgudu Mijna Sabbaths-Daga.

39. Þviad þa ed þær hofdu slaatrad sijnum Bornum fyrer Afgudunum, þa geingu þær þann sama Dag j Minn Helgedom, ad saurga hann, Siaa þu! Soddan hafa þær giort j Mijnu Huse.

40. Þær sendu og eirnenn Bod epter Monnum, sem koma skylldu af fiarlægum Londum, Og siaa þu! þa ed þeir komu, laugader þu þig, og frijdkader þitt Andlit, og pryder þig med Skarte, þeim til Virdingar.

41. Þu satst a eirnre veglegre Sæng, fyrer hvorre ad stod eitt Bord til bued, þar uppa veyfader þu Reykelsenu, og offrader þar a Mijnu Vidsmiore.

42. Þar upphoofust mikel Gledskapar-Hliod, og þær gaafu þeim Monnum sem þangad voru komner ur ollum aattum, af Mikelshaattar Folke, og af Eydemorkenne, Pryde a sijna Armlegge, og veglegar Koronur a þeirra Hofud.

43. Enn Eg þeinkte so, Hun er von vid Hoordom fyrer langre Æfe, Hun kann ecke af þvi ad laata ad Hoorast.

44. Þviad þeir ganga jnn til hennar, lijka sem ad jnn er geinged til eirnrar Port-Lijfes Konu, Eins lijka so þa ganga þeir til Ahala og Ahaliba, þeirra Saurlijfis-Kvenna.

45. Þar fyrer skulu þeir somu Menn refsa þeim, sem þañ Laga-Riettenn skulu fullkomna, so sem þær Hoor-Konurnar, og Blood-Draaps Konurnar skulu straffast med, þviad þær eru Hoordoms Konur, og þeirra Hendur eru fullar af Bloode.

46. So seger DROttinn DROttinn, Innleidtu upp hingad yfer þær eirn mikenn Mannfiolda, og gief þær ut, til Herfangs og Hlutskiptis,

47. Þeim sem þær skulu med Griote lemia, og j giegnum leggia med sijnum Sverdum, og j hel slaa þeirra Syne og Dætur, og brenna upp þeirra Hus med Ellde.

48. Med þessu vil Eg eirn Enda giora a Saurlifnadenum j Landenu, so ad allar Konur skulu sig þar a reka, og breyta ecke epter soddan Saurlifnade.

49. Og þeir skulu leggia uppa ydur allann ydarn Saurlifnad, og þier skulud bera Syndernar ydvara Afguda, So ad þier skulud formerkia ad Eg er DRottinn DRottinn.

## XXIV. Capitule.

Ezechiel Fyrermindar Jerusalems EydeleggING (I) med Einum Potte, og (II) med Dauda sinnar Eiginnkonu.

1. Og Ord DROTTins skiede til mijn, a þvi Nijunda Aarenu, þann Tijunda Dagenn j þeim Tijunda Maanude, og sagde.

2. Þu Mannsins Son! Skrifadu upp þennann Dag, Jaa, þennann sama Dag, þviad Kongurenn af Babylon hefur, a þennann sama Dag, utbued sig, a mote Jerusalem.

3. Og gief þvi O-hlydna Folke eina Epterlijking, og segdu til þeirra, So seger DROttinn DROTTinn, Laat þu eirn Pott upp, laat þu hann upp, og hell Vatne j hann.

4. Legg

4. Legg þu Stickenn til samans þar j, sem þar skulu j, og þau enu bestu Stickinn, Lærenn og Boogana, og fyll þu hann med þau hinu bestu Merg=Stickenn.

5. Tak hid besta af Hiørdenne, og kind Elld þar under, ad siooda Merg=Stickenn, og laat þau miøg siooda, og Merg=Stickenn þar inne verda vel sodenn.

6. Þar fyrer seger DROTTinn DROTtinn, O þann Manndraaps=Stadenn! sem er eirn soddann Pottur, ad þad hid vidbrennda klemmest þar vid, og vill ecke af ganga, Tak hvørt Sticked ut epter annad, og þu þarft ecke ad hlutast um, hvørt ad first skal ut.

7. Þviad hans Blood er þar j, sem hann hefur uthellt uppa einu beru Biarge, og ecke a Jordena, þar sem ad þad hefde maatt hyliast med Mollдenne.

8. Og Eg hefe og eirnenn þar fyrer laated hana uthella þvi sama Bloode a eitt bert Biarg, ad þar skyllde ecke yfer verda huled, uppa þad, ad Grimmdar=Reidenn skyllde koma yfer hana, og ad þessa skyllde hefnt verda.

9. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn, O þu Mord=Stadurenn! hvørn ad Eg vil giøra ad einu stooru Ellds=Baale.

10. Ber ad eins hingad mikenn Ellde=Vid, Kveiktu upp Elldenn, so ad Kioted verde soded, og krydda þad vel, so ad Mergiar=Stickenn brenne vid.

11. Settu eirnenn Pottenn tooman a Glædurnar, so ad hann verde vel heitur, og þad hans Malmur brenne, ef ad hans Saurende villdu j burt smelltast, og hans Skoofer af ganga.

12. Enn hvørsu miøg sem hann brennur, þa vill ecke þad hid vidbrennda af ganga, þviad þad er ofmiøg vid brunned, þad hlytur j Ellde ad smelltast.

13. Þinn Ohreinleike er so ofhardnadur, ad þo ad Eg villde enn giøra þig hreinann, þa villtu þo ecke laata hreinsa þig, af þijnum Ohreinleika. Þar fyrer kanntu ecke hier epter hreinn ad verda aptur, fyrr enn Mijn Grimmd hefur kiælt sig a þier.

14. Eg DROTTinn hefe talad þetta, þad skal koma, Eg vil giøra þad, og ecke undann draga, Eg vil ecke vægia, eige helldur laata þad angra Mig, helldur skulu þeir dæma þig epter þvi sem þu hefur lifad, og giørt til, seger DROTTinn DROTTinn.

II. 15. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

16. Þu Mannsins Son! Sioa þu! ad Eg vil j burt taka (a) Lyst þinna Augna, j eirnre Plaagu.

(a) Lysting Augnanna kallar hann sijna Eigenn=Kvinnu, af hvørre hann hefur Huggun, Lyst og Glede.

17. Enn þu skallt ecke kveina nie graata, og eige helldur uthella neinu Taare. Enn heimuglega maattu andvarpa, enn eckert Dauda=Kvein skalltu hafa. Helldur skalltu pryda þig þijnum Fegurdar=Buninge, og draga þijna Skoo a þig, Eige skalltu byrgia þinn Munn, þu skallt og ecke eta Sorgar=Brauded.

18. Og þa ad Eg talade til Folksins, snemma um Morgunenn, þa deyde mijn Kvinna um Kvollded. Og Eg giørde hinn annann Morgunenn lijka sem mier var boded.

19. Og Folked sagde til mijn, Villtu ecke kunngiøra oss þad, hvad þetta hefur ad merkia oss, sem þu giører?

20. Og eg sagde til þeirra, DROTTinn talade til mijn, og sagde.

21. Seig þu til Israels Huss, ad DRottinn DRottinn sege so; Sioa þu! Eg vil vanhelga Minn Helgedom, ydvart hid Hærsta Traust, ydar Augna=Lysting, og ydar Hiartans Osk, og ydar Syner og Dætur, sem þier skulud hliota ad yfergiefa, skulu falla fyrer Sverde.

22. Og þier skulud giøra sem eg giøre, þier skulud eige byrgia ydarn Munn, og ecke eta Sorgar=Braud.

23. Helldur skulud þier setia upp ydart Skart, uppa ydart Hofud, og taka a ydur ydar Skoo=Klæde. Þier skulud hvørke

harma nie groata, belldur skulud þier uppgiefast yfer ydar Syndum, og stynia hvor med odrum.

24. Og þannenn skal Ezechiel vera ydur ein Forundran, ad þier hlioted ad giora lijka sem hann hefur giort, nær ed þetta mun koma, hvar med ad þier skulud formerkia ad Eg er DROTTinn DROTTinn.

25. Og þu Mannsins Son! Þann Tijma nær ed Eg mun j burt taka fra þeim þeirra Magt og Traust, þeirra Augna-Lysting, og þeirra Hiartans Osk, þeirra Syne og Dætur,

26. Joa, a þeim sama Tijma skal einn koma til þijn, sem undann hefur flued, og kunngiora þier þad.

27. A þeim sama Tijma skal þinn Munnur upplukast med honum, sem undann hefur flued, so ad þu skallt tala, og ecke meir þeigia, þviad þu skallt vera þeirra Forundran, So ad þeir skulu formerkia ad Eg er DROttinn.

## XXV. Capitule.

Ezechiel straffar (I) Ammonita; (II) Moabita; (III) Edomita; Og (IV) Philistea.

I. OG Ord DROttins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Snu þu þijnu Auglite a moote Ammons Bornum, og spaadu a moote þeim.

3. Og segdu til Ammons Barna, Heyred Ord DROttins DROttins! so seger DROttinn DROttinn, Fyrer þad, ad þier sogdud, Haha! yfer Mijnum Helgedome, ad hann være vanhelgadur, og yfer Israels Lande, ad þad være j Eyde lagt, og yfer Husenu Juda, ad þad sie herteked j burt flutt.

4. Þar fyrer Sioa þu! Ad Eg vil giefa þig j Hendur Barnanna af Austrenu, ad þeir skulu byggia sijna Kastala og Bustade j þier, þeir skulu eta þinn Avoxt, og drecka þijna Miolk.

5. Og Eg vil giora Rabbath ad Ulfballda-Stalle, og Born Ammons til Fie-Hyrdara, Og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

6. Þvi so seger DROTTinn DROTTinn, Fyrer þad, ad þu klappader þijnum Hondum so til samans, og sparkader med Fotunum, og hefur so med Hædne gladt þig af ollu þijnu Hiarta yfer Israels Lande,

7. Þar fyrer sioa þu! Eg vil utrietta Mijna Hond yfer þig, og giefa þig Heidingiunum til Hluttskipt's, og upprycka þier fra Folkenu, og foreyda þier ur Londonum, og afmaa þig, Og þu skallt formerkia ad Eg er DROttinn.

II. 8. So seger DROTTinn DROttinn, Af þvi, ad Moab og Seir segia so, Sioa þu! Hused Juda er lijka so sem aller adrer Heidingiar.

9. Sioa þu! So vil Eg opna Moab a Hlidenne j hans Stodum, og j Landa-Merkium hans Edla Lands, sem er, BethJesimoth, Baal Meon, og Kiriathaim.

10. Þeim Bornunum mot Austrenu, med Ammons Bornum, og Eg vil giefa þeim hana til Arfleifdar, so ecke skal framar Barna Ammons minnst verda a medal Heidingianna.

11. Og Eg vil laata ganga Dom yfer Moab, og þeir skulu formerkia, ad Eg er DROTTinn.

III. 12. So seger DROttinn DROttinn, Þar fyrer, ad Edom hefur hefnt sijn a Husenu Juda, og syndgast so med sinne Hefnd,

13 Þar fyrer þa seger DROTTinn DROTTinn so, Eg vil utrietta Mijna Hond yfer Edom, og Eg vil j burt svipta þadann bæde Monnum og Fienade, og hana j Eyde leggia, fra Theman, jnn til Dedan, og fella þa fyrer Sverde.

14. Og Eg vil Hefna Mijn aptur a Edom, fyrer Mitt Folk Israel, og þeir skulu giora vid Edom epter Minne Reide og Grimmd, so ad þeir skulu formerkia Mijna Hefnd, seger DROTTinn DROTTinn.

IV. 15. So seger DROTTinn DROttinn, Fyrer þad, ad þeir Philistei hafa hefnt sijn,

og hefnt þess Gamla Hatursins, epter ollum
sijnum Vilia, medur Skada (Mijns Folks.)
16. Þar fyrer seger DRottinn DRot-
tinn so, Sioa þu! Eg vil utrietta Mijna
Hond yfer Philisteos, og afmoa þa Bardaga
Menn, og Eg vil fyrerkoma þeim sem epter
eru ordner vid Sioafar-Sijduna.
17. Og Eg vil frammkvæma stoora Hefnd
a þeim, og refsa þeim med Grimmd, so ad
þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn,
þa Eg hefe framed Mijna Hefnd a þeim.

## XXVI. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Tyri-Borgar Eydeleggingu; (II) Til Skelfingar og Ognunar þeim er byggdu i Neand vid hana.

I. Og þad skiede a þvi Ellefta Aarenu,
þann Firsta Dagenn þess Firsta
Moanadarins, ad Ord DROTTins skiede
til mijn, og sagde.
2. Þu Mannsins Son! Fyrer þad, ad
Tyrus seger yfer Jerusalem, Haha! Borgar-
Hlidinn Folksins eru nidurbrotenn, Nu er
þad komed til Mijn, Eg fyllunst nu, first
hun er j Eyde logd.
3. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn
so, Sioa þu! Eg vil til vid þig Tyrus! og
Eg vil utleida yfer þig marga Heidingia, Lijka
so sem eitt Sioafar-Haf, þad upphefur sig med
sijnum Bylgium.
4. Þeir skulu fordiarfa Murveggena j Ty-
ro, og ofan briota hennar Turna, Joa, Eg
vil og eirnenn þvi Duptenu j burt soopa fra
henne, og Eg vil giora hana ad berum Steine.
5. Og ad einum Holma j Hafenu, þar ed
Menn meiga utbreida sijn Fiske-Net, þviad
Eg hefe talad þad, seger DROTTinn
DROTTinn, Og hun skal verda Heidin-
giunum ad Herfoange.
6. Og hennar Dætur, sem liggia a Sliett-
lendenu, skulu drepnar verda fyrer Sverde, og
þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.
7. Þvi so seger DROttinn DROttinn,
Sioa þu! Eg vil loata Nabochodonosor,
Kongenn af Babylon, koma yfer Tyrum, fra
Nordrenu (hann sem er einn Kongur allra
Konga) med Hesta, Vagna og Riddara-Lid,
og med eirn mikenn Mannfiolda.
8. Hann skal med Sverde j hel sloa þijnar
Dætur, sem a Sliettlendenu liggia. Enn a
mote þier skal hann byggia Hervirke, og
Gyrdingar giora, og Herskiolldu utbua a
mote þier.
9. Hann skal med Murbriotum þijna Mur-
vegge nidur briota, og þijna Turna medur
sijnum Hervopnum ofan rijfa.
10. Jor-Reykur, af Fioldanum hans Hesta,
skal hylia þig, So skulu og eirnenn hans
Murvegger skioalfa af Brakenu Hestanna,
Hioolanna, og Riddaranna, Nær ed hann
mun jnn fara um þijn Borgar-Hlid, lijka sem
þad Menn plaga jnn ad fara j eirn nidurbro-
tenn Stad.
11. Hann mun med Fotunum sinna Hesta
nidur troda oll þijn Stræte, þitt Folk mun
hann med Sverde nidur drepa, og þijna
sterka Stoolpa ad Jordu ofan rijfa.
12. Þijnu Gotse skulu þeir ræna, og j bur-
tu grijpa þinn Solu-Eyrer. Þijna Murveg-
ge skulu þeir ofan briota, og þijn Fegurdar
Hus nidur rijfa, þeir munu þijnu Mur-Grio-
te, Husa-Vide, og Sorpe, utkasta a Vatned.
13. So vil Eg giora eirn Enda a þijnum
Saung-Hliodum, og Sloattar-Hliomurenn
þinnar Horpu skal ecke meir heyrdur verda.
14. Og Eg vil giora þig ad berum Stei-
ne, og ad einum Holma, þar ed Menn utbrei-
da sijn Fiske-Net a, so ad þu skallt ecke meir
upp aptur byggiast, þviad Eg er DRottinn,
sem þetta talar, seger DRottinn DRottinn.
II. 15. So seger DROttinn DROttinn j
mot Tyro, Hvad gillder? Þær Eyarnar munu
skielfast vid, nær ed þu skallt so skiemmelega
falla, og þa ed þijner hiner Searu munu
stynia, þeir sem j þier skulu drepner verda.
16. Aller Hofdingiarner vid Sioenn skulu
affetter verda sijnum Stoolum, og af sier leg-
gia

gia sijna Kyrtla, og afklæda sig sijnum Tig-
nar-Buninge.
17. Og munu ganga j Sorgar-Klædum,
og sitia a Jordunne, og þeir skulu skielfast vid,
og ugga um sig, yfer þinne skyndelegre Hra-
pan, Og þeir skulu saargrætelegana harma
þig, og segia af þier, Avi! Hvornenn ertu so
med ollu j Eyde ordenn? Þu hinn Nafnfræge
Stadurenn, sem laast vid Sioenn, og varst
so Megtugur a Sioafar-Hafenu medur þij-
num Innbyggiurum, so ad allt Landed var
hrædt vid þig!
18. Avi! Hvorsu hræddar voru Eyarnar
um sig, af þinne Hrapan! Jaa, þeim Eyunum
j Hafenu ognade yfer þinne Eydeleggingu.
19. So seger DROTTinn DROttinn,
Eg vil giora þig ad einum Eyde-Stad, so sem
þa adra Stade sem eingenn byr jnne, og Eg vil
laata eitt miked Vatnsflood koma yfer þig,
so ad mikel Votn skulu hylia þig.
20. Og Eg vil kasta þier nidur til þeirra
sem ofan fara j Grofena, sem er til hinna
(a) Daudu. Eg vil hrinda þier nidur under
Jordena, og giora þig so sem eina eyliijsa Ey-
deinork, medur þeim sem j Grofena nidur fara,
so ad eingenn skule j þier bua. Eg vil giora
þig, þu hin Prydelega j Lande Lifande
Manna!

(a) (Daudu) Ebr. Til þess Eyliijsa Folks, So kal-
lar og Salomon Grofena eitt Eyliijst Hus, af þvi
ad þeir Daudu eru avallt j somu Skickun, þvi þad
er eins hiaa þeim Nott og Dag, Kvolld og Morgna,
hiaa þeim er eingenn Mismunur a Tijmanum,
Stad, Verknade, edur nockre Umbreiting, so sem
hiaa þeim Lifondu, samt nefnast þeir Folk, þviad
þeir eiga upp ad rijsa.

21. Jaa, Eg vil giora þig ad Skielfingu,
so ad þu skallt ecke meir til vera, og nær ed
þeir spyria ad þier, ad Menn skulu alldrei
framar finna þig Eyliijslegana, seger DRot-
tinn DRottinn.

## XXVII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Tijri-Borgar Vegsemd; og
(II) um hennar Hormung.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn,
og sagde.
2. Þu Mannsins Son! Gior eirn Sor-
gar-Groat yfer Tyro.
3. Og seg þu til Tyrum, Þeirrar sem lig-
gur framm vid Sioafar-Hafed, og Kaup-
slagar vid margar Eyar Þiodanna, So seger
DROTTinn DROTTinn, O Tyrus!
Þu seger, Eg er hin Allra-Fegursta.
4. Þijn Landamerke eru (a) midt j Hafenu,
og þijner Uppbyggendur hafa tilbued þig hid
allra-prydelegasta.

(a) (Midt j Hafenu) So sem adrer Hofdingiar hof-
du Borger a Landenu, Þorp og Akra, so er Tyrus
Megtug j Sionum.

5. Þeir hafa allar þijnar Pil-Fialer af þij-
num Bord-Vid giordar af Sanir, og laated
flytia Cedrus-Trie af Libanon, og giort þijn
Mostur þar af.
6. Og þijnar aarar af Eike-Trioanum ur
Basan, og þijna Becke af Fijls-Beinum, og
þijna kostulega Stola ur Eyunum Chitim.
7. Þijn Segl voru af J-saumudu Silke af
Egyptalande, ad þad skyllde vera þitt Strijds-
Merke, og þijn Tiolld af Gulu Silke, og Pur-
pura, ur þeim Eyonum Elisa.
8. Þeir af Zidon og Arvad voru þijner
Skipveriar, og þu hafder skinsama Menn til
Siglingar til Tyrum.
9. Þeir Olldungarner og hiner Kunstrijku
af Gebal hlutu ad smijda þijn Skip. Oll
Haf-Skipenn a Sioonum, og Skipfolked
fanst hiaa þier, þeir hofdu sinn Kaupskap j þier.
10. Þeir ur Persia, Lydia og Lybia, voru
þijner Strijds-Menn, sem sijna Skiolldu og
Hialma uppsestu j þier, og giordu þig so
prydelega.
11. Þeir af Arvad voru med þijnu Herli-
de, j kringum þijna Mur-Vegge, og Vakta-
rar upp j þijnum Turnum, þeir festu sijna
Skiolldu alla vega ut a Mur-Veggena, og
giordu þig so prydelega.
12. Þu hafder þinn Kaupskap j Hafenu,
og

og flutter allshꜳttadann Varning, Silfur, Jꜳrn, Tin og Bly, til þinnar Kaupstefnu.

13. Javan, Tubal og Mesech, kaupslogudu vid þig, og fluttu þier Þræla, og Malm til þinnar Kaup-Stefnu.

14. Þeir af Thogarma fluttu þier Hesta og Vagna, og Mul-Asna, til þinnar Kaup-Stefnu.

15. Þeir af Dedan voru þijner Kaup-Menn, og allavegana hefur þu haft þinn Kaupskap j Eyunum, þeir selldu þier Fijla-Bein, og Heben-Trie.

16. Þeir af Syria sokttu þitt Erfide hiꜳ þier, sem þu verkader, og fluttu Rubin, Purpura, Tiølld, Silke og Flugel, og Krystalla til þinnar Kaup-Stefnu.

17. Juda og Jsraels Land kaupsløgudu eirnenn vid þig, og fluttu þier Hveite af Minnith, og Balsam, og Hunꜳng, og Oleum, og Mastix til þinnar Kaup-Stefnu.

18. Þar til sokte eirnenn Damascus hiꜳ þier þitt Erfide, og allshꜳttadann Varning, fyrer sterkt Vijn, og kostulega Ull.

19. Dan og Javan, og Mehusal, fluttu eirnenn a þitt Torg Jꜳrn-Smijdar, Cassia og Calmus, so ad þu kaupslagader þar med.

20. Dedan keypte vid þig med Tiallda-Vefnade, þar ed a er seted.

21. Arabia og aller Høfdingiarner af Kedar høfdu Kaupskap vid þig, med Saude, Hruta og Hafra.

22. Þeir Kaupmennerner af Saba, og Naema, keyptu vid þig, og fluttu þier allshꜳttadar kostulegar Jurter, og dyrlega Gimsteina, og Gull til þinnar Kaupstefnu.

23. Haran og Channe, og Eden med Kaup-Mønnunum af Seba, Assur og Chilmad, voru og þijner Kaupmenn.

24. Þeir kaupsløgudu aller vid þig med kostulegum Klædum, med Silke og Dyrendis Klædum, hvørn ed þeir, j kostulegum Kistum, af Cedrus-Triꜳm smijdudum, og vel umvendudum, fluttu til þinnar Kaup-Stefnu.

25. Enn Haf-Skipenn voru hin Ypparstu a þinne Kauprein.

26. Þannenn ertu ordenn miøg Rijk og Tijgugleg j midiu Siꜳfar-Hafenu, og þijner Skip-Menn hafa flutt, ad þier yfer mikel Votn.

II. 27. Enn eirn Austan-Vindur skal j sundur briota þig midt j Sionum, so ad þinn Sølu-Eyrer, Kaup-Menn, Høndlarar, Skip-Folk, Styre-Menn, og Skipa-Smider, og þijner Høndlunar-Menn, og aller þijner Strijds-Menn, og allt Folked j þier, skal tortijnast midt j Siꜳfar-Hafenu, a þeim Tijma nær ed þu geingur j Grunn.

28. So ad Høfnenn skal og eirnenn skiꜳlfa vid, af Hꜳ-Hliodunum þinna Styre-Maña.

29. Og aller þeir sem rooa med Arum, asamt Skip-Verium og Meisturum, skulu stijga af Skipunum uppa Landed.

30. Og med Hꜳ-Hliodum æpa yfer þier, og harma þig beisklegana, og ausa Molldu yfer Høfud sier, og vellta sier j Østu.

31. Þeir munu raka sig Berskøllota yfer þier, og vefia Seckium j kringum sig, og af Hiarta beisklegana grꜳta, og sorga yfer þier.

32. Þeirra Børn munu og eirnenn harma þig, Aha! Hvør hefur nockurn Tijma so kirr orded a Siꜳfar-Hafenu, so sem þu Tyrus?

33. Þar ed þu framder þinn Kaupskap a Sionum, Mørg Lønd audgader þu, Jꜳ, þu augdader eirnenn Kongana a Jørdenne, medur þijnum Varninge og Kaupskap.

34. Enn nu ertu af Siꜳfar-Hafenu j burt køstud, j þad miøg diupa Vatned, so ad þijn Handteran, og allur þinn, Mannfiølde, er nidurfallenn j þier.

35. Aller þeir sem j Eyunum bua skielfdust yfer þier, og þeirra Kongum þa ognade þad, og bꜳru sig Hørmulegana.

36. Þeir Kaup-Menn j Løndunum blystra epter þier, ad þu ert so skyndelegana forgeingenn, og kannt ecke meir upp aptur ad komast.

# XXVIII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Straff fyrer Dramb Høf-
dingians i Tyro; Og spaaer (II) ad annad vidlikt
Straff munde koma yfer Zidon.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn,
og sagde,
2. Þu Mannsins Son! Seg þu Høfdin-
giannum j Tyro, So seger DROTTinn
DROTTinn, Fyrer þad, ad þitt Hiarta upp-
hefur sig, og seger, Eg er GUD, Eg sit a
Velldis-Stoole Guds, midt a Sionum!
Þar þu ert þo Madur, enn eingenn Gud, enn
þo forhefur sig samt þitt Hiarta, lijka sem ad
være þad eitt Guds Hiarta.
3. Sioa þu! Þu þykest hyggnare enn Da-
niel, ad ecke sie neitt huled fyrer þier.
4. Og ad þu hafer komed slijkre Magt til
vegar, fyrer Kunst og Hyggiu-Vit, og Fioar-
Siodu samandreiged, af Gulle og Silfre, og
Giørsemis Gripum.
5. Og med þijnum mikla Vijsdome og
Høndlun hafer þu feinged sø stoora Magt,
og þar af ertu so drambsamur ordenn, ad þu
ert so megtugur.
6. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn
so, Med þvi ad þitt Hiarta þad upphefur sig,
lijka sem eins Guds Hiarta, þar fyrer sioa
þu!
7. Eg vil senda yfer þig þa enu Framande,
sem eru Tyrannarner Heidingianna, þeir sku-
lu utdraga sijn Sverd yfer þinne Fegurdar-
Vitsku, og giøra þijna stoora Vegsemd ad
Vanvirdu.
8. Þeir skulu steypa þier j Grøfena nidur,
ad þu skuler deya midt j Sioafar-Hafenu, so
sem þeir jhelslegnu.
9. Hvad skal gillda? Hvørt ad þu munt
segia til þeirra sem þig jhel sloa, Eg em GUD!
Þar þu ert þo ecke GUD, helldur Madur, og
j Hende þinna Bana-Manna.
10. Þu skallt deya, lijka sem hiner O-um-
skornu, fyrer Hende hinna Annarlegu, þviad
Eg hefe þad talad, seger DROTTinn
DROTTinn.

11. Og Ord DRottins skiede til mijn, og
sagde,
12. Þu Mannsins Son! Giør eirn Har-
ma-Groat yfer Kongenum af Tyro, og seg
þu um hann, So seger DROTTinn
DROttinn, Þu ert eitt hreinlegt Innsigle,
fullt af Vijsdome, og Offa-Fagurt.
13. Þu varst j Guds lystelegum Jurtra-
Garde, og pryddur med allshoattudum
Gimsteinum, Sem er med Sardus, Topa-
sius, Adamas, Turkous, Onyx, Jaspis,
Saphirus, Carbunculus, Smaragdus, og
Gull, A þeim Deigenum ed þu varst skapa-
dur, þa blutu hioa þier reidubunar ad vera
þijnar Bumbur og Hliod-Pijpur.
14. Þu ert sem eirn Cherub, sem vijdt ut-
breider og hylur sig, Og Eg setta þig uppa
þad Heilaga Fialled Guds, ad þu skyllder
ganga a medal gloande Steina.
15. Og þu varst Flecklaus j þijnum Giør-
ningum, a þeim Deige þa ed þu varst skapa-
dur, þangad til og so leinge þad þinn Mis-
giørningur vard fundenn.
16. Þviad þu ert ordenn hid jnnra fullur
af Offstopa, af þinne stooru Høndlun, og þu
syndgadest, Þar fyrer vil Eg vanhelga þig, j
fra þvi Fiallenu Guds, og Eg vil utreka þig,
Þu hinn utbreidde Cherub! af þeim Gloande
Steinenum.
17. Og med þvi, ad þitt Hiarta þad upphe-
fur sig, af þvi þu ert so fagur, og þu lietst þijn
Klokende tæla þig j þijnu Skraute, Þar fyrer
vil Eg kasta þier nidur til Jardar, og giøra
þig ad Undrum fyrer Kongenum.
18. Þviad þu hefur fordiarfad þinn Helge-
dom, med þijnum miklum Misgiørdum, og
raungum Kaupskap. Þar fyrer vil Eg laata
eirn Elld utganga af þier, sem þier skal forey-
da, og Eg vil giøra þig ad Øsku a Jordunne,
so ad øll Verølldenn skal sioa uppa þad.
19. Aller þeir sem þeckia til þijn, a medal
Heidingianna, skulu hrædast vegna þijn, þad
þu ert so skyndelega j Grunn fallenn, og kannt
alldrei meir upp ad komast.

II. 20. Og Ord DROttins skiede til mijn, og sagde,

21. Þu Mannsins Son! Set þitt Andlit a mot Zidon, og spaadu a moote henne, og segdu,

22. So seger DROTTinn DROTTinn, Siaa þu! Eg vil til vid þig Zidon! og Eg vil Sigre hroosa a þier, so ad Menn skulu formerkia ad Eg er DROTTinn, nær ed Eg læt Doomenn ganga yfer hana, og auglyse a Henne ad Eg sie Heilagur.

23. Og Eg vil utsenda j hana Drepsott, og Blods Utheiling a hennar Stræte, og þeir skulu med Banvænlegum Averkum falla þar jnne, fyrer Sverdenu, sem alla vega skal yfer hana ganga, og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

24. Og sijdan skal þar alla vega j kringum Israels Hus, sem þeirra Oviner eru, eingenn Þyrner vera, sem þa skule stijnga, edur Þystell, sem skal þeim Mein giora, So ad þeir formerke ad Eg er DROttinn DROttinn.

25. So seger DROTTinn DROTTinn, Nær ed Eg saman safna aptur Israels Huse, j fra þvi Folkenu, medal hvorra þeir eru j sundurdreifder, þa vil Eg auglysa a þeim fyrer Heidingium, þad Eg er Heilagur.

26. Og þeir skulu bua j sijnu Lande, þvi sem Eg gaf Mijnum Pion Jacob, og þeir skulu Ugglauser þar jnne bua, og Husenn upp byggia, og Vijngardana planta. Jaa, þeir skulu Ugglauser bua, nær ed Eg læt Doomenn ganga yfer alla þeirra Ovine allt um kring, Og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn þeirra GUD.

## XXIX. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Egypta-Lands Olucku, sem þvi se buenn af þeim Chaldæis; (II, Um Folksins Fangelse; Og (III) um þess mikla Epterlaungun ad mega frelsast fra Babylon.

I. A Þvi Tijunda Aarenu, þann Tolfta Dagenn þess Tijunda Maanadar, skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde.

2. Þu Mannsins Son! Set þitt Auglit a moote Pharao, Kongenum af Egypta-Lande, og spaadu a moote honum, og j moote ollu Egypta-Lande.

3. Predika, og seg þu! So seger DROttinn DRottinn, Siaa! Eg vil til vid þig Pharao! Kongur Egypta-Lands, þu hinn mikle Dreke! sem liggur j þijnu Vatne, og seger, (a) Vatns-Straumurenn er Minn, og Eg hefe giort Mier hann.

(a) Vatns-Straumurenn Er Nilus, og merker allt Egypta-Lands Kongs-Rijke, sem var miog vænt og megtugt Kongs-Rijke, Þar fyrer treyste og Pharao uppa slijka sijna Magt, og aktade eckert um Guds Hootaner, Þad meinar hann, þar hann seger, Eg hefe giort mier hann, þeirrar Meiningar, Gud er ecke Herra yfer honum, Eg er Herrann!

4. Enn Eg vil leggia þier eirn Bitel j Munn, og laata Fiskana j þijnu Vatne loda a þijnu Hreistre, og Eg vil draga þig utaf þijnum Vatns-Straumum, med ollum þeim Fiskum j þijnum Votnum, sem loda a þijnu Hreistre.

5. Eg vil utkasta þier med þijnum Fiskum, ur þijnu Vatne, burt j Eydemorkena, a Lande skalltu falla, og ecke upp aptur lesenn nie samansafnadur verda, helldur skalltu verda Dyrunum j Landenu, og Fuglunum Himensins ad Hrææ.

6. Og aller þeir sem j Egypta-Lande bua skulu formerkia, ad Eg er DROttinn, fyrer þad, ad þeir hafa vered Israels Huse eirn (b) Reyr-Stafur.

(b) (Reyr-Stafur) Juda leitade sier opt Hiaalpar hiaa Egypta-Lande, hvar ut j Juda stoorlega syndgade, med sijnu raungu Trauste, þar med hiaalpade þo Egypta-Land ecke par þa a laa, þar fyrer verdur þvi jafnad hier vid eirn Reyr-Staf, vid hvorn ef nockur helldur sier, þa stingur hann, med þvi ad hann er Odd-hvass, og þar med brotnar j sundur.

7. Hvor ed brotnade, nær ed þeir hielldu honum j Hendenne, og stack þa j giegnum Sijduna, enn nær ed þeir studdu sig þar vid, þa brast hann j sundur, og stack þa j Lendarnar.

8. Þar fyrer seger DROTTinn DRottinn

tinn so, Sioa þu! Eg vil lꝏta Sverded koma yfer þig, og j burt svipta bæde Mønnum og Fienade j þier.

9. Og Egypta-Land skal verda ad eirne Eydemørku og Ørækum, og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn. Fyrer þad ad Hann seger, Vatns-Straumurenn er Minn, og Eg er sa sem þad giorer.

10. Þar fyrer sioadu! Eg vil til vid þig, og vid þijna Vatns-Strauma, og Eg vil giora Egypta-Land ad Eydemørku og Obyggdum, fra Turnenum til Siene, jnn til Landamerkianna Morlands.

11. So þar skal hvorke Fienadur nie Menn jnne ganga, eda þar jnne bua j Fiorutijge Aar.

12. Þviad Eg vil giora Egypta-Land Eyde, og lꝏta þess Endemork O-Byggd vera, og Stadena j Eyde liggia j Fiorutijge Aar, so sem adra Eyde-Stade, og Eg vil sundur tvistra þeim Egyptsku a medal Heidingianna, og Eg vil utreka þa um Londinn.

II. 13. Þo seger DROTTinn DROttinn so, Nær ed þau Fiorutijge Aarenn eru umlidenn, þa vil Eg safna Egyptskum til samans aptur, j burt fra þeim Þiodunum, a medal hvørra þeir skulu utdreifder verda.

14. Og Eg vil snua Herleidingunne Egyptskra, og flytia þa jnn aptur j Landed Pathros, hvort ad er þeirra Fødurland, og þar skulu þeir vera eitt lijted Kongs-Rijke.

15. Þviad þeir skulu vera litler hioa ødrum Konga-Rijkium, og ecke meir drottna yfer Heidingiunum, Og Eg vil giora þa Lijtels-Hꝏttar, so ad þeir skulu ecke drottna yfer þeim Heidnu.

16. So þad Jsraels Hus skal ecke meir treysta uppa þa, og syndgast þar med, Nær ed þeir hallda med þeim, Og þeir skulu formerkia ad Eg er DRottinn DROTTinn.

III. 17. Og þad bar so til, a þvi Tuttugasta og Siounda Aarenu, a þeim Firsta Deigenum þess Firsta Mꝏnadarens, þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde,

18. Þu Mannsins Son! Nobochodonosor, Kongurenn af Babylon, hefur flutt sitt Herlid fyrer Tyrum, med mikelle Armædu, so ad allra Høfud eru skollott ordenn, og allra Sijdur slitnar, og hans Erfidismuner, fyrer Tyro, eru þo hvorke hønum, nie hans Strijds-Folke, launader.

19. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn so, Sioa þu! Eg vil giefa Nabochodonosor, Kongenum af Babylon, Egypta-Land, ad hann skal j burt taka allt þeirra Gots, Ræna þad og Rupla, so ad hann giefe Laun sijnu Herlide.

20. Enn hønum vil Eg giefa Egypta-Land fyrer sijna Erfidismune, sem hann hefur haft þar fyrer, Þviad þeir hafa þionad Mier, seger DROTTinn DROTTinn.

21. A þeim sama Tijma vil Eg lꝏta þad Horned Hussens Jsraels vaxa, og Eg vil uppluka þijnum Munne a medal þeirra, So ad þeir skulu formerkia ad Eg er DROttinn.

## XXX. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Foreydslu Egypta-Lands; Og II) ad þad skule verda giort utaf vid þess Konung.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Spaadu og segdu! So seger DROTTinn DROttinn, Kveined (og seged.)

3. O Vei þeim Deigenum! Þviad Sa Dagurenn er nꝏlægur, Ja, Sa Dagurenn DROTTins er nꝏlægur, eirn mirkur Dagur, sa Tijmenn er j Nꝏnd, þad hiner Heidnu skulu koma.

4. Og Sverded skal koma yfer Egypta-Land, og Mor-Land hlytur ad hrædast, nær ed hiner jhel slegnu falla j Egypta-Lande, og þa ed þess Folk verdur j burt flutt, og þa ed þess Grundvallan um Koll velltist.

5. Mor-Land, og Lybia, og Lydia, med allskꝏttudu Folke, og Chub, og þeir sem eru af Sꝏttmꝏlans Lande, skulu falla medur þeim fyrer Sverdenu.

6. So

6. So seger DROTTinn, Þeir Lands-
varnar-Menn Egypta-Lands hlióta ad falla,
og su Drambseme þeirra Magtar-Velldis
skal nidur steigenn verda, j frá Turnenum til
Siene skulu þeir fyrer Sverde falla, seger
DROTTinn DROTTinn.
7. Og þeir skulu j Eyde leggiast, lijka sem
þau þeirra eydelogdu Landa-Merke, og þeirra
Stader skulu j Eyde liggia a medal annara
Obyggdra Stada.
8. So ad þeir skulu formerkia ad Eg er
DROTTinn, Nær ed Eg giore eirn Elld j
Egyptalande, So ad aller, þeir sem þvi veita
Hiaalp, foreydder verde.
9. A þeim sama Tijma skulu Sendebodar-
ner ut fara fra Mier j Skipenn, ad hræda
Morland, sem nu er so athugalaust, og þar
skal vera ein Hrædsla a medal þeirra, lijka
sem þad gieck Egyptalande, þa ed þess
Tijme kom, þviad Sioa þu! ad Vissulegana
kiemur þad.
10. So seger DROttinn DROttinn,
Eg vil utdrijfa Mannfiolda Egyptalands,
fyrer Nabochodonosor, Kongenn af Babylon.
11. Þviad hann, og hans Folk med ho-
num, asamt med þeim Tyronnum Heidin-
gianna, eru þar til sookter, ad þeir fordiar-
fe Landed, og þeir munu sijn Sverd utdra-
ga a mote Egyptalande, so ad Landed skal
alla vega liggia fullt med þa j Hel slegnu.
12. Og Eg vil upp þurka Vatns-Straum-
mana, og selia Landed Illu Folke, og Eg vil
fyrer þa Annarlegu foreyda Landed, og allt
hvad þar er inne. Eg DROTTinn hefe
talad þad.
13. So seger DROttinn DROttinn,
Eg vil j burt svipta Skurgodunum j Noph,
og afmaa þa Afgudena, og hiner Egyptsku
skulu ongvann Hofdingia leingur hafa, og Eg
vil innsenda eina Hrædslu j Egyptaland.
14. Eg vil Pathros j Eyde leggia, og
uppkveikia eirn Elld j Zoan, og laata Riet-
tenn ganga yfer No.
15. Og Eg vil uthella minne Grimmd yfer
Sin, sem ad er sa eirn Kastale Egyptalands,
Og Eg vil upprycekia Mannfioldannm j No.
16. Eg vil uppkveikia Elld j Egyptalande,
og Sin skal hafa Angist og Neyd, og No
skal verda j Eyde lagd, og Noph skal hafa
daglega Angist.
17. Þeir hiner ungu Karl-Menn j On, og
Bubasto, skulu falla fyrer Sverde, og Konur-
nar skulu Herteknar j burt fluttar verda.
18. Thachpanhes skal faa eirn mirkvann
Dag, nær ed Eg j sundur slæ Oked Egyptskra,
so ad Drambsemenn þeirra Magtar skal faa
einn Enda þar inne, Huir skal hyliast med
Skijunum, og hennar Dætur skulu Her-
teknar j burt flytiast.
19. Og Eg vil laata Domenn ganga yfer
Egyptaland, ad þeir skulu formerkia ad Eg
er DROTTinn.
II. 20. Og þad bar so til, a þvi Ellefta Aare-
nu, þann Siounda Dagenn j þeim Firsta
Maanudenum, ad Ord DROttins skiede
til mijn, og sagde,
21. Þu Mannsins Son! Eg vil j sundur
briota Armleggenn Pharao, Kongsins af E-
gyptalande, Og sioa þu! ad ei skal um hann
bunded verda, so ad hann meige læknast,
hann skal og ei helldur med Spelkum
umvafenn verda, so ad hann giete stirkur or-
ded, og faae Sverdenu hallded.
22. Þar fyrer seger DROttinn DROt-
tinn so, Sioa þu! Eg vil til vid Pharao,
Kongenn af Egyptalande, og Eg vil j sundur
briota hans Armlegg, bæde þann hinn Oflu-
ga, og hinn Veika, so ad Sverded skal falla
ur hans Hende.
23. Og Eg vil j burt dreifa þeim Egyptsku
a medal Heidingianna, og j burt drijfa þa j
Londinn.
24. Enn Eg vil stirkia Armleggenn Kongs-
ins af Babylon, og faa honum mitt Sverd j
sijna Hond, og Eg vil j sundur briota Armleg-
gena Pharaonis, ad hann skal stynia fyrer
honum, lijka sem sa er til Olijfis er særdur.

25. Joa, Eg vil ſtirkia Armleggenn Kongſins af Babylon, ſo ad Armlegger Pharaonis nidur ſijge, uppa þad, ad þeir ſkulu formerkia ad Eg er DROTTinn, Nær ed Eg gief Mitt Sverd j Kongſins Hond af Babylon, ad hann ſkal utryckia þvi yfer Egypta-Land.

26. Og Eg j burt dreiſe þeim Egyptſkum a medal Heidingianna, og utreke þa j Londenn, So ad þeir formerke ad Eg er DRottinn.

## XXXI. Capitule.

Konungurinn i Egypta-Lande ſkal, allt eins og Kon: i Aſſyria, verda Eydelagdur, fyrer ſaker ſins Drambs.

Og þad ſkiede a þvi Elleſta Aarenu, þann Firſta Dagenn j þeim Pridia Maanadenum, ſkiede Ord DROTTins til mijn, og ſagde,

2. Þu Mannſins Son! Seg þu til Pharao, Kongſins j Egypta-Lande, og til alls hans Folks, Hvorium þeinker þu þa ad þu ſiert Lijkur j þinne Vegſemd?

3. Sioa þu! Aſſur var ſem eitt Cedrus-Trie a Libanon, med fogrum Greinum og Laufþickvum, og miog hoar, ſo ad hans Toppur ſtood hoatt a medal þeirra ſtooru digru Greinanna.

4. Vatned giører þad, ad hann vard ſtoor, og Diuped, ad hann vox ſo hoatt, Hans Vatns-Roaſer geingu utann um kring Bolenn a honum, og hans Læker til allra Eikanna j Landenu.

5. Þar fyrer vard hann hærre enn oll Trie j Landenu, og fieck margar Greiner og langa Kviſtu, Þviad hann hafde nooglegt Vatn ad utbreida ſig med.

6. Aller Himenſins Fuglar giordu Hreidur a hans Greinum, og oll Skoog-Dyrenn hofdu Unga under hans Kviſtum, og þar bioo allt ſtoort Folk under hans Skugga.

7. Hann hafde Fagrar, ſtoorar og langar Greiner, þviad hans Rætur hofdu miked Vatn.

8. Og þar var ecke neitt Cedrus-Trie hønum lijkt, j Guds Alldingarde, og Grene-Trien kunnu ecke ad jafnaſt vid hans Greiner, og Kaſtaneu-Trien voru eckert hioa hans Kviſtum. Joa, hann var ſo fagur, ad þar var ecke neitt ſo Fagurt Trie j Guds Alldingarde.

9. Eg giorde hann ſo prydelegann, ad hann fieck ſo margar Greiner, ad oll lyſteleg Trie j Guds Alldingarde ofunduđu hann.

10. Þar fyrer ſeger DROttinn DRottinn ſo, Af þvi ad hann er ordenn ſo hoar, ad hans Toppur ſtod a medal ſtoorra, hoarra, þickra Kviſta, og hans Hiarta upp hoof ſig, af þvi hann var ſo hoar,

11. Þar fyrer gaf Eg hann j Hendur þeim (a) Megtugaſta a medal Heidingianna, ſem ſkyllde handtera vid hann, og j burt drijfa hann, ſo ſem hann hafde verdſkulldad, med ſijnu Ogudlegu Athæfe.

(a) (Megtugaſta) Þviad Kongurenn af Babylon hafde litlu fyrre uppſvelgt þad Aſſyrianſka Kongs-Rijke og Ninive, ædur enn Jeruſalem var j Eyde løgd.

12. So ad hiner annarlegu ſkulu upprycкia honum, ſem ad eru Hervijkingarner Heidingianna, og j burt dreiſa honum, og hans Greiner ſkulu liggia a Fiollonum, og j ollum Dolonum, og hans Greiner j ſundurmoladar, j hioa ollum Lækium j Landenu. So ad allt Folked a Jordunne ſkal j burt vijkia, fra hans Skugga, og yfergiefa hann.

13. Og aller Fuglar Himenſins ſeatu a hans nidur follnum Stofne, og oll Skoog-Dyrenn løgdu ſig a hans Greiner.

14. So ad eingenn Trie ſkylldu upphefia ſig hiedan af j hioa Vatnenu, j ſinne Hæd, af þvi ad Topparner ſtanda a medal ſtorra þickra Greina, og þad ecke neitt Trie, hioa Vatnenu, ſkule upphefia ſig yfer annad, þviad þeir ſkulu aller under Jordena, og ofurſeliaſt j Daudann, ſem adrer Menn, þeir ed nidur fara j Grofena.

15. So ſeger DROttinn DROttinn, A þeim

A þeim Tijma, nær ed hann ofan for til Hel-
vijtis, þa giorda Eg eirn Harma-Groat, ad
Underdiupenn huldu hann, og hans Vatns-
Straumar hlutu kirrer ad standa, og þau
hinu stooru Votnenn kunnu ecke ad renna,
og Eg giorde þad, ad Libanon bar Harm
epter hann, og oll Trien a Sliettlendenu burt
þornudu yfer honum.
16. Eg hrædde Heidingiana, þa ed þeir
heyrdu hann falla, þann Tijd Eg steypte ho-
num til Helvijtis nidur, med þeim sem ofan
fara j Grofena. Og oll þau lystelegu Trien
under Jordenne, þau hinu Edlasomustu, og
hin bestu a Libanon, og oll þau sem fyrr hof-
du staded hia Vatnenu, unnu honum vel.
17. Þviad þau hlutu eirnenn med honum
ofann ad fara til Helvitis, til þeirra sem Hel-
slegner voru med Sverdenu, med þvi ad þeir
hofdu bued under Skugganum hans Arm-
leggia, a medal Heidenna Pioda.
18. Hvorsu stoor meinar þu þa, ad þu
(Pharao) siert, med þijnu Bramle og Meg-
semd, a medal þeirra Lystelegu Trioanna?
Þviad þu hlytur nidur ad fara under Jor-
dena, med þeim Lystelegu Trioanum, og lig-
gia a medal hinna O-umskornu, sem j Hel
slegner eru med Sverdenu. Þannenn skal
þad ganga Pharao med ollu hans Folke,
seger DROTTinn DROTTinn.

## XXXII. Capitule.

Ezechiel harmar þad Egypta-Lands Konungur skule
eydeleggiast so herfelega, til Ognurnar morgum Pio-
dum.

Og þad bar so til a þvi Tolfta Arenu, þann
Firsta Dagenn j þeim Tolfta Manu-
denum, ad Ord DROTTins skiede til
mijn, og sagde,
2. Þu Mannsins Son! Gior þu eirn
Harmagroat yfer Pharaone, Kongenum af
Egypta-Lande, og seg þu til hans, Þu ert
lijka sem eitt Leon a medal Heidingianna, og
so sem eirn Sioafar-Dreke, og Stockur j
þijnum Vatns-Straumum, og rootar Vat-
nenu med þijnum Footum, og giorer þess
Strauma grugguga.
3. So seger DROTTinn DROTTinn,
Eg vil kasta Mijnu Nete yfer þig, fyrer eirn
mikenn Mannfiolda, sem þig skulu reka j mitt
Net.
4. Og Eg vil draga þig uppa Landed, og
kasta þier uppa Vollunа.
5. So ad aller Fuglar Himensins skulu si-
tia a þier, og oll Dyrenn a Jordunne skulu
mettast af þier.
6. Og Eg vil kasta þijnu Hræe uppa Fiol-
lenn, og uppfylla Dalena med þinne Hæd.
Eg vil giora Landed, sem þu sveimar inne,
raudt af þijnu Bloode, allt upp til Fiallanna,
so ad Lækerner skulu verda fuller af þier.
7. Og * nær ed þad er med ollu utgiort um
þig, þa vil Eg byrgia Himenenn, og mirkva
hans Stiornur, og draga fyrer Solena med
Skijonum, og Tungled skal ecke skijna.
* Matth. 24, 29.
8. Og oll Lioosenn a Himnenum vil Eg
lаta mirk verda yfer þier, og Eg vil giora
Mirkur j þijnu Lande, seger DRottinn
DRottinn.
9. Þar med vil Eg skielfa Hiortunn margra
Pioda, nær ed Eg læt Heidingiana former-
kia þijna Hefndar-Ploagu, og morg þau Lond
sem þu þecker ecke.
10. Og margt Folk skal felms-fullt verda
yfer þier, og þeirra Konga skal grua fyrer
þier, nær ed Eg læt mitt Sverd leyptra a
moote þeim, og þeir skulu skielfast skyndelega-
na, so ad þeirra Hiortu skulu nidur falla yfer
þijnu Falle.
11. Þvi so seger DROTTinn DROT-
Tinn, Kongsins Sverd af Babylon skal hæfa
þig.
12. Og Eg vil nidur sloa þitt Folk, fyrer
Kappanna Sverdum, og fyrer allsheattu-
dum Tyronnum Heidingianna, þeir skulu
foreyda Megsemdenne Egypta-Lands, so ad
allt þess Folk skal afmoad verda.

13. Og Eg vil fyrerkoma øllum þess Dyrunn, j hiaa þvi stoora Vatnenu, so ad einskis Manns Fotur, og einskis Dyrs Klauf, skal giora þad gruggugt.

14. Þa vil Eg og hreinsa þeirra Vøtn, so ad þeirra Straumar skulu fliota sem Vid-Smiør, seger DROTTinn DRottinn.

15. Nær ad Eg hefe Egypta-Land j Eyde lagt, og foreydt þvi øllu sem þar er j Landenu, og jhel sleiged alla sem þar bua jnne, ad þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

16. Þar mun verda su Eymd, sem Menn meiga vel harma, Ja, margar Dætur Heidingianna skulu framm flytia soddann Grаat, yfer Egypta-Lande, og Menn skulu grаata yfer øllu þessu Folke, seger DROttinn DROttinn.

17. Og a þvi Tolfta Aarenu, þann Fimmtanda Dag j sama Maanude, þa skiede Ord DROTTins til mijn, og sagde,

18. Þu Mannsins Son! Grаat þu Folked j Egyptalande, og steyp þvi nidur, med Dætrunum hinna Øflugu Heidingia, under Jordena, til þeirra sem ofan fara j Grøfena.

19. Hvar er nu þijn Vellysting? Far þu nidur, og legg þig hiaa þeim O-umskornu!

20. Þeir skulu falla a medal hinna jhelslegnu med Sverdenu. Þad Sverded er nu þegar teked, og þvi er utryckt yfer allt hennar Folk.

21. Þar af skulu hiner Øflugu Kappar segia j Helvijte, medur sijnum Med-Hiaalpar Mønnum, þeir sem aller eru ofann farner, og liggia þar a medal þeirra O-umskornu, og hinna jhel slegnu med Sverdenu.

22 Þar liggur Assur grafenn med øllu sijnu Folke, allt um kring, sem aller eru jhel slegner, og fallner fyrer Sverde.

23. Þeirra Legstader eru diuper j Grøfunum, og hans Folk liggur grafed, alla vega um kring, sem aller eru jhel slegner, og fallner fyrer Sverdenu, fyrer hvoriu þad oll Verolldenn var hrædd.

24. Þar liggur og eirnenn Elam grafenn, med allann sinn Flock, allt um kring, þeir sem aller eru slegner og fallner fyrer Sverdenu, og nidur farner, lijka sem hiner O-umskornu, under Jordena, fyrer hvorium ad oll Verolldenn var hrædd, og þeir skulu bera sijna Skømm, medur þeim sem ofann fara j Grøfena.

25. Þeir voru þar lagder med allann sinn Hoop a medal hinna jhelslegnu, og þeir liggia þar grafner allt um kring, og eru aller lijka sem hiner O-umskornu, og jhel slegnu med Sverdenu, fyrer hvorium ad eirnenn oll Verolldenn hlaut ad vera hrædd, og þeir skulu bera sijna Skømm, med þeim sem ofann fara j Grøfena, og vera a medal hinna jhel slegnu.

26. Þar liggur Mesech og Thubal, med allann þeirra Hoop, grafner allt um kring, sem aller eru O-umskorner, og jhel slegner med Sverdenu, fyrer hvorium ad oll Verolldenn hlaut eirnenn hrædd ad vera.

27. Og aller adrer Kappar, sem fallner eru a medal hinna O-umskornu, og ofann eru farner til Helvijtis, medur sijnum Her-Vopnum, og þeirra Sverd eru løgd under þeirra Høfud, og þeirra Misgiorningur er komenn yfer þeirra Bein, þeir ed þo voru hrædeleger Kappar j allre Verolldenne, hliota so ad liggia.

28. Eins so þa skalltu og eirnenn vissulegana j sundur kramenn verda, a medal hinna O-umskornu, og liggia so a mille þeirra sem jhel slegner eru med Sverdenu.

29. Þar liggur Edom medur sijnum Kongum, og øllum sijnum Høfdingium, a medal hinna jhel slegnu med Sverdenu, og a medal hinna O-umskornu, med þeim odrum, sem ofann fara j Grøfena, hvorier þo hafa vered Megtuger.

30. Ja, aller Høfdingiar af Nordrenu hliota þangad, og aller Zidoniar, sem eru ofann farner medur hinum jhel slegnu, og þeirra hrædelega Magt er ordenn til Skammar, og þeir skulu liggia a medal hinna O-umskornu, og þeirra, sem jhel slegner eru med Sverdenu,

og

og bera sijna Skømm aasamt med þeim, sem ofann j Grøfena fara.

31. Þessa mun Pharao siea, og hugga sig med øllu sijnu Folke, sem under honum eru jhel slegner med Sverdenu, og med øllu sijnu Herlide, seger DRottinn DRottinn.

32. Þviad oll Verolldenn skal enn eitt Sinn vottast fyrer Mier, so ad Pharao, og allur hans Man=Fiølde, skal liggia a medal hinna O=um=skornu, og hiaa þeim sem eru jhel slegner med Sverdenu, seger DROTTinn DROT=Tinn.

# XXXIII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Embætte Eins Trulynds Kennemanns; (II) um Guds Miskunseme vid þa er jdrast; Og (III) um Guds Rettlæte gegn þeim Rangsnunu Syndurum.

I. Og Ord DROttins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Predika a moote þijnu Folke, og segdu til þeirra, Ef ad Eg læt Sverded koma yfer Landed, og Folked j Landenu tekur eirn Mann a medal sijn, og setur hann til sijns Vardhallds Manns.

3. Og hann sier Sverded koma yfer Landed, og hann blæs j Herludurenn, og varar so Folked vid.

4. Hvor sem þa heyrer Hliodenn Herludursins, og vill ecke vakta sig, og Sverded þad kiemur og svipter honum j burt, hans Blood skal vera yfer hans Høfde.

5. Þviad hann heyrde Herludursins Hliood, og hefur þo ecke ad helldur varad sig vid, Þar fyrer þa vere hans Blood yfer honum. Enn hvor sem lætur vara sig vid, hann mun biarga sijnu Lijfe þar j fra.

6. Enn ef Vardhallds=Madurenn sier Sverded koma, og blæs ecke j Herludurenn, og varar ei helldur sitt Fólk vid, og Sverded kiemur, og svipter nockrum j burt, þeir hiner somu verda ad vijsu j burt tekner fyrer sinna Synda Saker, Enn þeirra Bloods vil Eg krefia af Vardhallds=Mannsins Hende.

7. Og þu Mannsins Son! Eg hefe sett þig til eins Vardhallds Manns yfer Jsraels Hus,

nær ed þu heyrer nockud af Mijnum Munne, sem þu skallt vara þa vid Minna vegna.

8. Nær ad Eg sege nu so til hins Ogudlega, Þu hinn Ogudlege skallt vissulegana deya! Og þu seger honum ecke þad sama, so ad sa hinn Ogudlege take sier vara fyrer sinne Breytne, þa skal hinn Ogudlege ad vijsu deya, fyrer sijns Ogudlegs Athæfis Saker, Enn Eg vil krefia hans Bloods af þinne Hende.

9. Enn varer þu hinn Ogudlega vid sinne Breytne, ad hann snue sier þar j fra, og hann vill ecke snua sier fra sijnu Athæfe, þa skal hann deya fyrer sinna Synda Saker, enn þu hefur frelsad þijna Seal.

II. 10. Þar fyrer, þu Mannsins Son! Seg þu til Jsraels Huss, Þier seged so, Vorar Synder og Misgiorder hær liggia a oss, so ad vier forgongum þar under, Hvornenn kunnum vier þa ad lifa?

11. Þa seg þu til þeirra. So Sannarlega sem Eg life, seger DRottinn DRottinn, þa hefe Eg ongva Þocknan a Dauda hins Ogudlega, helldur þad, ad hinn Ogudlege snue sier fra sinne Breytne, og life. So snued ydur nu j fra ydvare vondre Breytne. Hvar fyrer vilied þier deya, Þier af Huse Jsraels?

12. Og þu Mannsins Son! Seg þu til þijns Folks, Nær ed eirn Riettlaatur giorer Ranglega, þa mun þad ecke stoda honum ad hann hefur Riettlaatur vered. Og nær ed eirn Ogudlegur giørest Riettvijs, þa skal þad ecke skada hann ad hann hefur Ogudlegur vered. So kann og ecke hinn Riettferduge ad lifa, nær ed hann syndgast.

13. Þvi ef Eg segde til hins Riettferduga, Hann skal lifa, og hann treyster uppa sijna Riettvijse og giorer ranglega, þa mun oll hans Riettvijse, ecke j Minne løgd verda, helldur mun hann deya j sijnu Ranglæte sem hann giorer.

14. Og ef Eg sege til hins Ogudlega, ad hann skule deya, Og hann snyr sier fra sijnum Syndum, og giorer þad sem riett og gott er,

15. So ad hinn Ogudlege skilar Pante-



num

num aptur, og bitalar þad aptur sem hann hefur rænt, og geingur epter Lijfsins Orde, so ad hann giörer ecke neitt Rangligana, þa skal hann lifa og ei deya.

16. Og allar hans Synder, sem hann hefur giört, skulu ecke hugleiddar verda, þviad hann giörer nu þad sem Riett og Gott er, þar fyrer skal hann lifa.

17. Þo seger þitt Folk, DROTTinn dæmer ecke riett, þott ad þeir hafe Oriett.

18. Þviad nær ed hinn Riettferduge snyr sier j fra sinne Riettvijse, og giörer ranglega, þa a hann med riettu ad deya þar fyrer.

19. Og nær ed hinn Ogudlege snyr sier j fra sijnu Ogudlegu Athæfe, og giörer þad sem Riett og Gott er, þa skal hann med riettu lifa.

20. Þo seged þier samt, ad DROTTinn dæme ecke riett, þo ad Eg dæme Ydur af Israels Huse, hvørn epter sijnu Athæfe.

III. 21. Og þad skiede so, A þvi Tolfta voru Herleidingar Aare, þann Fimmta Dagenn j þeim Tijunda Maanudenum, kom eirn til mijn, sa sem undann hafde komest fra Jerusalem, Og sagde, Stadurenn er sleigenn!

22. Og Hønd DROTTins var yfer mier um Kvølldед, Fyrr enn sa kom sem undann hafde komed, og upplauk minn Munn, þar til hann kom til mijn um Morgunenn, og hann upplauk so mijnum Munne a mier, þad eg kunne ecke meir ad þeigia.

23. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

24. Þu Mannsins Son! Þeir sem bua j þeim Eyde-Stødum j Israels Lande, segia so, Abraham var ad eins eirn Madur, og hann erfde þetta Land, og vier erum marger, þvi høfum vier betra Riett til Landsins.

25. Þar fyrer seg þu til þeirra, So seger DROTTinn DROTTinn. Þier hafed eted Blooded, og upphafed ydar Augu til Afgudanna, og uthellt Bloodenu, og þier meined ad þier vilied eignast Landed?

26. Jaa, þier hallded Ætijd framm um Manndraapenn, og fremied Svijvirdingar, og eirn hann skammar Eigennkonu hins annars, og þier meined ad þier vilied eignast Landed.

27. So seg þu til þeirra, So seger DROttinn DROttinn, So Sannarlega sem Eg life, þa skulu þeir aller sem bua j þeim Eyde Stødunum falla fyrer Sverde, og hvad sem a Akrenum er, þad vil Eg giefa Dyrenum til Fædslu, og þeir sem eru j Kostulunum, og Hellurunum, skulu deya af Drepsóott.

28. Þviad Eg vil med øllu foreyda Landed, og giøra eirn Enda a þeirra Drambseme, og Magt, so ad Israels Fiøll skulu j Eyde vera, ad eingenn skal ganga þar yfer um.

29. Og þeir skulu formerkia ad Eg er DROttinn, Nær ed Eg hefe Landed allsungis j Eyde lagt, fyrer allra þeirra Svijvirdinga saker, sem þeir giøra.

30. Þu Mannsins Son! Þitt Folk talar a mote þier, hiaa Veggiunum, og j Husdyrenum, og hvor seger til annars, Kiære! Komed og laatum oss heyra hvad DROttinn seger.

31. Og þeir munu koma til þijn j Samkundunne, og sitia framme fyrer þier, so sem mitt Folk, og munu heyra þijn Ord, enn ecke neitt giora þar epter, helldur munu þeir blystra epter þier, og lifa so samt aframm epter sinne Agyrne.

32. Og siaa þu! þu verdur ad vera þeirra (a) Asmors-Kvæde, hvort ad þeir munu giarnan kveda, og spila, so munu þeir heyra þijn Ord, og ecke neitt giora þar epter.

(a) (Asmors Kvæde) Gydingar komu ad heyra Predikun, ei til ad trua, nie bæta sinn Lifnad, helldur til ad blystra epter Spaamønnunum, og spotta hann, og ad þeir kynne ad heyra nockud, sem þeir mætte skiemta sier ad sijdann, og kveda um, so heidrudu þeir þad Heilsusamlega Guds Ord, so sem Veralldenn og so helldrar þad a vorum Tijma.

33. Enn nær þad kiemur hvad koma skal, Siaa þu! þa skulu þeir formerkia ad eirn Prophete hefur vered a medal þeirra.

XXXIV.

# XXXIV. Capitule.

Ezechiel talar (I) um þa Følsku og Otrun Hyrdara medal Israels-Barna; og (II) um Christum þann Retta og Sanna Hyrder.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. Þu Mannsins Son! Spaadu a moote Hyrdørum Israelis, Spaadu og segdu til þeirra, So seger DROttinn DROttinn, Vei Israels Hyrdurum sem ala sioalfa sig! Eiga ecke Hyrdararner ad ala Hiørdena?

3. Enn þier eted þad hid Feita, og klæded ydur med Ullenne, og þier sloatred þvi sem aled er, Enn Saudena vilied þier ecke ala.

4. Þier giæred ecke ad þvi vanfæra, og lækned ecke þad Siuka, þad sem Soart er græded þier ecke, þad sem Vegavillt er sæked þier ecke, og þier leited ecke epter þvi sem Glatad er, helldur drottned þier streingelega og hardlega yfer þeim.

5. Og mijner Sauder eru j sundurtvijstrader, lijka sem þeir ed øngvann Hyrder hafa, og øllum Villu-Dyrum ad oatu ordner, og med ollu j sundur dreifder.

6. Og þeir ganga villter hingad og þangad, a Fiollunum, og uppa þeim hoafu Hoalsinum, og þeir eru j sundur tvijstrader, um allt Landed, og þar er eingenn sem spyrie epter þeim, eda hyrde um þa.

7. Þar fyrer heyred Þier Hyrdarar Ord DROTTins!

8. So Sannarlega sem Eg life, seger DROttinn DROttinn, Af þvi þier loated Saude Mijna verda ad Herfoange, og Mijna Hiørd øllum Villudyrum ad oatu, med þvi ad þeir hafa øngvann Hyrder, og Mijner Hyrdarar skeyta ecke um Mijna Hiørd, helldur eru þeir soddan Hyrdarar sem ala sioalfa sig, Enn Mijna Saude vilia þeir ecke ala.

9. Þar fyrer Þier Hyrdarar! Heyred Ord DROTTins!

10. So seger DROttinn DROttinn, Sioa þu! Eg vil koma yfer þa Hyrdarana, og krefiast Minnar Hiardar, af þeirra Hondum, og Eg vil loata þa hafa eirn Enda, so ad þeir skulu ecke leingur Hyrdarar vera, og þeir skulu ecke meir ala sioalfa sig. Eg vil frelsa mijna Saude af þeirra Munne, so ad þeir skulu ecke meir upp eta þa hiedan j fra.

II. 11. Þvi so seger DRottinn DRottinn, Sioa þu! Eg sioalfur vil taka Mijna Hiørd ad Mier, og leita ad þeim.

12. Lijka sem eirn Hyrder leitar ad sijnum Saudum, nær ed þeir eru j burt villter fra hans Hiørd. So vil Eg leita ad Mijnum Saudum, og Eg vil frelsa þa af øllum þeim Stødum j hvoria þeir voru j burt dreifder, a þeim Tijma þa ed þad var so Dimmt og Myrkt.

13. Eg vil utleida þa fra øllu Folke, og samansafna þeim af øllum Londum, Og Eg vil inflytia þa j þeirra Land, og Eg vil þeim Fædslu giefa a Israels Fiollum.

14. Og hioa Lækiunum og a øllum byggdum Boolum j Landenu. Eg vil leida þa til besta Haglendis, og þeirra Sauda-Hus skal standa uppa Fiollunum Israels, þar skulu þeir liggia j einu lystelegu Sauda-Huse, og faa Feitt Fodur a Israels Fiollum.

15. Eg vil sioalfur ala Mijna Saude, og Eg vil bæla þa, seger DRottinn DRottinn.

16. Eg vil upp leita þad Glatada, og leida aptur þad sem villtest, og græda þad hid Lemstrada, og giæta ad þvi Vanfæra, og Eg vil geyma ad þvi sem Feitt og Velfært er, og Eg vil hafa Umhugsun fyrer þeim so sem riett er.

17. Enn til ydar, Mijn Hiørd! seger DROTTinn DROTTinn so, Sioa þu, Eg vil dæma a millum Saudar og Saudar, og a millum Hrutanna og Hafranna.

18. Næger þad eige, ad þier hafed so gott Haglende, og yfergnæfanlegt, ad þier troded þad nidur med Fotunum? Og so fagra Brunna ad drecka af, so noglega, ad þier stijged þar j, og giøred þa Ohreina?

19. So

19. So ad Mijner Sauder hliota ad eta þad sem þier hafed med ydrum Fotum nidurtroded, og drecka þad sem þier hafed med ydrum Fotum gruggugt giort.

20 Þar fyrer seger DRottinn DRottinn so, til þeirra, Sioa þu! Eg vil dæma a millum hins Feita og hins Magra Saudarins.

21. Af þvi, ad þier slæed med Fotunum, og stanged fra ydur þad hid Vanfæra, med ydrum Hornum, þangad til ad þier j burt tvijstred þeim øllum fra ydur.

22. Og Eg vil hioalpa Minne Hiord, ad þeir skulu ecke framar meir verda ad Herfoange, og Eg vil dæma a millum Saudar og Saudar.

23. Og Eg vil uppvekia þeim eirn Einka Hyrder, sem þa skal ala, sem er Minn Þienara David, hann skal þeim Fædu giefa, og hann skal vera þeirra Hyrder.

24. Og Eg DRottinn vil vera þeirra Gud, enn Minn Þienare David skal vera eirn Hofdinge a medal þeirra, þad sege Eg DROTTinn!

25. Og Eg vil giora eirn Fridar-Soattmoala vid þa, og j burt reka oll Jllsku-Dyrenn af Landenu, so ad þeir skulu Ohrædder bua a Eydemørkunum, og sofa j Skogunum.

26. Eg vil blessa þa, og allar mijnar Hæder, allt um kring, og loata rigna yfer þa j riettann Tijma, þad skal vera ein Blessunar-Dogg.

27. So ad Trien a Landenu skulu bera sinn Avøxt, og Landed skal giefa sinn Grooda, og þeir skulu Ohrædder bua j Landenu. Og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn, nær ed Eg hefe j sundur broted þeirra Ok, og frelsad þa af þeirra Hende hvorium þeir hlutu ad þiona.

28. Og þeir skulu ecke meir Heidingiunum ad Herfoange verda, og eingenn Dyr a Jordenne skulu meir upsvelgia þa, helldur skulu þeir Ørugger bua oan allrar Hrædslu.

29. Og Eg vil uppvekia þeim eirn Nafnfrægann Alldin-Kvist, ad þeir skulu ecke meir lijda Hungur j Landenu, Og þeir skulu ecke meir bera sinn Kinnroda a medal Heidingianna.

30. Og þeir skulu formerkia ad Eg DRottinn þeirra Gud er hioa þeim, og ad þeir eru Mitt Foolk af Huse Jsraels, seger DROttinn DROttinn.

31. Joa, Þier Menn skulud vera Hiordenn Mijns Foodurs, og Eg vil vera ydar Gud, seger DROTTinn DROTTinn!

## XXXV. Capitule.

Ezechiel talar um Eydelegging Edomitanna, sem skyllde koma yfer þa med Hernade, fyrer Svijvirdingar giørdar Jsraels Folke.

Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

2. Þu Mannsins Son! Set þitt Andlit a moote Fiallenu Seir, og spaadu a moote þvi.

3. Og seg þu til þess, So seger DROTTinn DROTTinn, Sioa þu! Eg vil til vid þig þu Fialled Seir! og utrietta Mijna Hond a moote þier, og Eg vil j Eyde leggia þig med ollu.

4. Eg vil giora þijna Stade ad Ørbylum, so ad þu skallt verda ad Obyggdum, Og formerkia ad Eg er DROTTinn.

5. Af þvi, ad þier bered eylijfann Fiandskap til Jsraels Barna, og reakud þa under Sverded, þa ed þeim veitte jlla, og þeirra Synder hofdu Enda.

6. Þar fyrer, So Sannarlega sem Eg life, seger DROttinn DROTTinn, Vil Eg eirnenn giora þig Blodugann, og þu skallt ei komast undann Blodenu, af þvi þu hefur Lysting til Blodsins, þa skalltu ecke undann komast Blodenu.

7. Og Eg vil giora Fialled Seir ad Eydemørku og Ørækum, so ad eingenn skal ferdast eda ganga þar uppa.

8. Og Eg vil uppfylla øll hans Fioll, og Hoalsa, Dale og Læke, med hina Daudu, þa sem þar skulu liggia jhel slegner med Sverdenu.

9. Joa, Eg vil giora þig til eirnrar eylijfrar Eydemerkur, ad eingen skal bua j þijnum Stodum.

dum. Og þier skulud formerkia ad Eg er DROTTinn.

10. Og af þvi þu seger, Þetta hvortveggia Folk, med bꜳdum Londonum, skal vera mitt, og vier vilium eignast þau, þo ad DROTTinn hann bue þar,

11. Þar fyrer, So Sannarlega sem Eg lifi, seger DROttinn DROttinn, Eg vil breyta vid þig, epter þinne Reide og Hatre, so sem ad þu hefur breytt vid þa af riettu Hatre, og Eg vil vera þecktur hiꜳ þeim, þa ad Eg hefe refsad þier.

12. Og þu skallt formerkia ad Eg DROttinn hefe heyrt alla þijna Hꜳdung, sem þu hefur talad a mote Jsraels Fiollum, og sagt, Þau eru j Eyde løgd, og oss giefenn ad fordiarfa þau.

13. Og þier hafed hælst um vid Mig, og talad hardlega j giegn Mier, þad hefe Eg heyrt.

14. So seger nu DROttinn DROttinn, Eg vil giora þig ad eirnre Eydemørku, so ad allt Landed skal gledia sig.

15. Og so sem ad þu hefur gladt þig j giegn Arfleifdenne Hussens Jsraels, ad taka hana ad þier, med þvi ad hun var j Eyde løgd, Lijka so vil Eg giora vid þig, so ad Fialled Seir skal verda j Eyde, med giorvallre Edom, Og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

## XXXVI. Capitule.

Ezechiel (I) Lofar þeim Burtreknu Jsraelitum ad þeir skule komast aptur j sitt Land; og (II) þa skule þeir einnig ødlast af Guds Nꜳd allskonar Blessaner.

1. Og þu Mannsins Son! Spꜳdu Jsraels Fiollum, og segdu, Þier Jsraels Fioll, Heyred Ord DROTTins!

2. So seger DROTTinn DROTTinn, Af þvi ad Ovinurenn hrꜳsar sier yfer ydur, Haha! Þær æfenlegu (a) Hæderna eru nu ordnar vor Arfleifd.

(a) Þad er Eylijf Guds Þionustu-giørd.

3. Þar fyrer spꜳdu og segdu, So seger DROTTinn DROTTinn, Med þvi þeir j Eyde løgdu og afmꜳdu ydur, alla vega, og þier erud þeim epter-ordnu Heidingium ad Hlutskipte ordner, og erud komner j Folksins Munna, og erud ordner ad vondre Uthrꜳpan,

4. Þar fyrer heyred þier Jsraels Fioll Ord DROTTins DROTTins! So seger DROTTinn DROTTinn, bæde til Fiallanna og til Hꜳlsanna, til Lækianna og Dalanna, til Øræfa Eydemarkanna, og obyggdra Stadanna, sem eru þeim epter-ordnu Heidingium ad Gripdeilldum og Hꜳdungu ordner, allt um kring.

5. Jꜳ, So seger DROttinn DROttinn, Eg hefe talad j Minne brennande Vandlætingu, mote þeim epter-ordnu Heidingium, og j mꜳte giørvallre Edom, sem mitt Land hefur ad sier teked, med Fagnade af ollu Hiarta, og med hꜳduglegum Athꜳatre, til ad fordiarfa og rupla þad.

6. Þar fyrer spꜳdu um Jsraels Land, og seg þu til Fiallanna og Hꜳlsanna, til Lækianna og Dalanna, So seger DROTTinn DROTTinn, Siꜳ þu! Eg hefe talad j Minne Vandlætingu og Grimmd, Af þvi þier hlioted ad bera soddan Forsmꜳan af Heidingiunum.

7. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn so, (b) Eg upphef Mijna Hond, ad ydrer Nꜳgrannar, Heidingiarner allt um kring, skulu þar j giegn sialfer bera sijnar Skammer.

(b) (Eg upphef mijna Hond) Þad er, Eg sver.

8. Enn þier Jsraels Fioll skulud blomgast aptur, og bera ydvarn Avoxt Mijnu Folke Jsrael, og þad skal snarlegana skie.

9. Þvi siꜳed, Eg vil snua Mier til ydar aptur, og giæta ad ydur, so ad þier skulud uppbyggiast, og nidur sꜳder verda.

10. Og Eg vil fiolga Folkenu hiꜳ ydur, giørvollu Jsraels Huse, ollu til samans. Og Staderner skulu setner verda aptur, og Eydemerkurnar uppbyggdar verda.

11. Jꜳ, Eg vil fiolga hiꜳ ydur Folke og Fienade, so ad þier skulud fiolga og vaxa.

Og Eg vil jnnsetia ydur aptur, þar þier biuggud fyrr meir. Og Eg vil giøra ydur meira gott, helldur enn nockurn Tijma aadur fyrre, Og þier skulud formerkia ad Eg er DRottinn.

12. Eg vil jnnflytia Menn til ydar, sem skulu vera Mitt Folk Jsrael, Þeir skulu þig eignast, og þu skallt þeirra Arfleifd vera, og þu skallt ecke meir vera Erfingialaus.

13. So seger DROttinn DROttinn, Med þvi ad Menn segia þad um ydur, Þu hefur uppeted Folked, og þu hefur giørt þitt Folk Erfingialaust,

14. Þar fyrer skalltu ecke (nu) meir upp eta Folked, ei helldur giøra þitt Folk Arflaust, seger DROttinn DROttinn.

15 Og Eg vil ei laata þig leingur heyra Brijxlenn Heidingianna, og þu skallt ecke leingur bera Hadungar Heidingianna, og þu skallt ecke giøra þitt Foolk Erfingialaust leingur, seger DROttinn DROttinn.

16. Og Ord DROttins skiede frammveigis til mijn.

17. Þu Mannsins Son! Þa ed Jsraels Hus bio j sijnu Lande, og saurgade þad medur sinne Breytne og Giørningum, so ad þeirra Breytne var fyrer Mier, so sem Ohreinleike Kvinnunnar j hennar Krankdæme;

18. Þa uthellte Eg Minne Grimmd yfer þa, fyrer þess Blodsins saker sem þeir uthelltu j Landenu, og saurgudu þad sama med þeirra Afgudum.

19. Og Eg utdreifde þeim a medal Heidingianna, og Eg j burt rak þa j Løndinn, og dæmde þa epter þeirra Breytne og Giørningum.

20. Og þeir hielldu sig lijka so sem Heidingiarner, til hvorra þeir komu, og * vanhelgudu Mitt hid Heilaga Nafn, so ad þeir søgdu so af þeim, Er Þetta Folk DROttens? Er Þad utfared af Hans Lande?

* Rom. 2, 24.

21. Enn Eg vægde fyrer Mijns Heilaga Nafns saker, hvort ed Jsraels Hus þad vanhelgade a medal Heidingianna, til hvorra þeir komu.

II. 22. Þar fyrer skalltu segia til Jsraels Huss, So seger DROttinn DROttinn, Eg giøre þad ei fyrer Ydar skulld, Þier af Huse Jsraels! helldur fyrer Mijns Heilaga Nafns saker, hvort þier hafed vanhelgad a medal Heidingianna, til hvorra þier erud komner.

23. Þviad Eg vil helga mitt hid Mikla Nafn, sem af ydur er vanhelgad fyrer Heidingium, þad sem þier hafed vanhelgad a medal þeirra. Og þeir hiner Heidnu skulu formerkia ad Eg er DRottinn (seger DRottinn DRottinn) Nær ad Eg auglyse Mig a ydur fyrer þeim, þad Eg sie Heilagur.

24. Þviad Eg vil sækia ydur til Heidinna Þioda, og samansafna ydur af øllum Løndum, og innflytia ydur aptur j ydart Land.

25. Og Eg vil støckva hreinu Vatne a ydur, so ad þier skulud verda Hreiner af øllum ydar Saurendum, og Eg vil hreinsa ydur fra øllum ydar Afgudum.

26. Og giefa ydur eitt Nytt Hiarta, og eirn Nyann Anda j ydur, og Eg vil burt taka Stein-Hiartad af ydru Holld, og giefa ydur eitt Kiotlegt Hiarta.

27. Eg vil giefa Minn Anda j ydur, og Eg vil giøra eitt soddann Folk af ydur sem geingur j Mijnum Bodordum, og helldur Mijn Riettinde, og giører þar epter.

28. Og þier skulud bua j Landenu, sem Eg gaf ydar Forfedrum, og þier skulud vera Mitt Folk, og Eg vil vera ydar Gud.

29. Eg vil frelsa ydur af øllum ydar Ohreinleika, og Eg vil kalla Korned, og Eg vil margfallda þad, og ecke neitt Hallære vil Eg laata koma til ydar,

30. Eg vil Margfallda Avøxtenn a Triaanum, og Avøxtenn a Akurløndunum, so ad Heidingiarner skulu ecke meir hæda ydur med þeirre Hallæris Tijdenne.

31. Þa munud þier hugleida ydar vonda Breytne, og ydar Giørninga sem eige voru gooder, og þier munud þa Jdrast ydvara Synda, og Afguda-Dijrdkunar.

32. Þessu vil Eg til Vegar koma, Ecke fyrer

ydar

ydar ſkulld, ſeger DROttinn DROttinn, ſo ad þier ſkulud vita þad, helldur ſo ad þier ſkulud eirnenn ſkammaſt ydar, og bera Kinnroda, þier af Jſraels Huſe, yfer ydar vondre Breytne.

33. So ſeger DROttinn DROttinn, A þeim Tijma, nær ed Eg mun hreinſa ydur af øllum ydar Syndum, þa vil Eg byggia þeſſa Stadena aptur, og þeir eyddu Staderner ſkulu aptur uppbyggder verda.

34. Pad foreydda Landed ſkal eriaſt aptur, fyrer þad, ad þad var fordiarfad, ſo ad aller þeir ſem þar ganga um ſkulu ſiaa þad.

35. Og ſegia, Þetta Landed var j Eyde lagt, og nu er þad ſem eirn lyſtelegur Alldingárdur, og þeſſer Stader voru nidur brotner, og eydelagder, og ofann riſner, Enn nu ſtanda þeir Rammlega byggder.

36. Og þeir Heidingiarner, ſem epter eru ordner j kringum ydur, ſkulu formerkia ad Eg er DROTTinn, Sa ſem upp bygger þad ſem ofann er broted, og grooburſetur þad ſem j Eyde er lagt. Eg DROTTinn hefe talad þetta, og giore eirnenn þad hid ſama.

37. So ſeger DROTTinn DROttinn, Eg vil laata ad nyu Jſraels Hus ſpyria Mig, ſo ad Eg meige audſyna mig þeim, og Eg vil margfallda þa, ſo ſem Mannanna Hiørd.

38. So ſem eina Heilaga Hiord, ſo ſem eina Hiord til Jeruſalem a hennar Hoatijdum, ſo ſkulu þeir foreyddu Staderner fuller vera af Mannanna Hiørd, Og þeir ſkulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

# XXXVII. Capitule.

Ezechiel ſeger Jſraels Folke fyrer viſt, ad þad ſkule komaſt aptur heim i ſitt Fødurland, Hvad hann ſyner med Upriſu Daudra Beina; og (II) Framſetur Fyrermindan. med Tveimur Keflum, ad þar ſkyllde verd. Eitt Folk af þeim Tolf Ættkvijſlum, og Einn Sof nudur af Gydingum og Heidinglum, i þvi Nya Teſtamente.

1. Og Hønd DROTTins kom yfer mig, og flutte mig burt j Anda DROttins, og ſette mig a eirn vijdann Voll, ſem fullur laa af Beinum.

2. Og hann leidde mig þar allſtadar j giegnum, Og ſiaa þu (af Beinunum) laa miøg margt a Vellenum, og ſiaa þu! þau voru miøg ſkinenn.

3. Og hann ſagde til mijn! Þu Mannſins Son! Meinar þu nockud ad þeſſe Bein ſkule verda Lifande? Og Eg ſagde, DROTTinn DROTTinn! Þad veitſtu vel.

4. Og hann ſagde til mijn, Spaa þu af þeſſum Beinum, og ſeg til þeirra, Þier ſkinenn Bein, Heyred Ord DROTTins!

5. So ſeger DROTTinn DROttinn, af þeſſum Beinum, Siaa þu! Eg vil innſenda eirn Anda j ydur, ſo ad þier ſkulud Lifande verda.

6. Eg vil giefa ydur Ædar, og laata Kiot vaxa yfer ydur, og draga Horund þar yfer, og giefa ydur Anda, ſo ad þier ſkulud verda Lifande aptur, Og þier ſkulud formerkia ad Eg er DROTTinn.

7. Og Eg ſpaade, ſo ſem mier var bifalad, og ſiaa þu! ad þar vard Hark, þa eg ſpaade, og ſiaa þu! ad þau hrærdu ſig, og Beinenn komu til ſamans aptur, hvørt til ſijns Beins.

8. Og eg ſaa, og ſiaa þu, ad þar uxu Ædar og Kiot a þeim, og hann dro Horund yfer þau, þo var þar enn nu eingenn Ande j þeim.

9. Og hann ſagde til mijn, Spaadu til Vindſins, Spaa þu Mannſins Son! og ſeg þu til Vindſins, So ſeger DROttinn DROTTinn, Vindur! kom þu hingad ur fiorum Vedrum, og blaas a þeſſa hina Daudu, ſo ad þeir verde Lifande aptur.

10. Og eg ſpaade ſo ſem hann ſkipade mier. Þa kom þar Andenn j þa, og þeir lifnudu aptur, og þeir reiſtu ſig uppa ſijnar Fætur. Og þad var miøg mikell Her.

11. Og hann ſagde til mijn, Þu Mannſins Son! Þeſſe Bein eru giørvallt Jſraels Hus. Siaa þu! Nu ſegia þeir, Vor Bein eru

eru skinenn, og vor Von er fortopud, og
pad er utgiort um oss.
12. Þar fyrer speadu, og segdu til þeirra,
So seger DRottinn DROTTinn, Sioa
þu! Eg vil opna ydar Grafer, og Eg vil ut-
leida ydur, Mitt Folk, af þeim, og innflytia ydur
j Jsraels Land.
13. Og þier skulud formerkia ad Eg er
DROTTinn, þa ad Eg hefe opnad ydar
Grafer, og utleidt ydur, Mitt Folk, af þeim.
14. Og Eg vil giefa Minn Anda j ydur, so
ad þier skulud verda Lifande aptur, og Eg vil
innsetia ydur j ydar Land, Og þier skulud for-
merkia ad Eg er DROTTinn, Eg tala þad,
og giore þad eirnenn, seger DRottinn.
II. 15. Og Ord DROttins skiede til mijn,
og sagde,
16. Þu Mannsins Son! Tak þier eitt
Kefle, og skrifa þar uppa Juda og Jsraels
Born, og þeirra Samlags-Menn. Og tak
enn þa eitt Kefle, og skrifa þar uppa Josephs,
sem er Ephraims Kefle, og alls Jsraels Huss,
og þeirra Samlags-Menn.
17. Og legg þad eina til samans vid hitt
annad, ad þad verde eitt Trie-Kefle j þinne
Hende.
18. Nær ed þitt Folk talar til þijn, og se-
ger, Villtu ecke kunngiora oss þad, hvad er
þu meinar þar med?
19. Þa seg þu til þeirra, So seger DROt-
tinn DROTTinn, Sioa þu! Eg vil taka
Trie-Kefled Josephs, sem er j Ephraims
Hende, med sijnum Samlags-Monnum,
Jsraels Slekte, og Eg vil leggia þa til Kefle-
sins Juda, og giora þar so eitt Kefle af, og
þeir skulu vera eitt j Minne Hende.
20. Og þu skallt so hallda a þeim Trie-
Keflunum j þinne Hende, a hvor ed þu hefur
skrifad, so ad þeir sioe þad.
21. Og þu skallt segia til þeirra, So seger
DROTTinn DROTTinn, Sioa þu!
Eg vil sækia aptur Jsraels Born til Heidin-
gianna, til hvorra ed þeir eru i burt farner,
og Eg vil samansafna þeim allstadar ad, og vil
innflytia þa aptur j þeirra Land.
22. Og Eg vil giora eitt einungis Folk af
þeim j Landenu, uppa Jsraels Fiall-Byggdum,
og þeir skulu aller til samans hafa eirn einka
Konung, og þeir skulu ecke meir skiptast j Tven-
nar Pioder, eige helldur j Tvo Kongarijke.
23. So skulu þeir og ecke meir saurga sig
med sijnum Afgudum og Svijvirdingum, og
allskonar Syndum, Eg vil hialpa
þeim ut af ollum oattum, j hvorium þeir hafa
Syndgast, og Eg vil hreinsa þa, og þeir sku-
lu vera Mitt Folk, og Eg vil vera þeirra GUD.
24. Og David Minn Pienare skal vera
þeirra Kongur, og eirn Einkaulegur Hyrder
allra þeirra. Og þeir skulu ganga j Mijnum
Riettindum, og hallda Mijn Bodord, og
giora þar epter.
25. Og þeir skulu bua j þvi Landenu aptur,
sem Eg gaf Mijnum Pienara Jacob, j hvo-
riu ydrer Forfedur þeir biuggu, Þeir og þeir-
ra Born, og Barna-Born, skulu bua þar
inne æfenlega, og David Minn Pienare skal
vera þeirra Hofdinge Eylijflegana.
26. Og Eg vil giora Fridarens Sattt-
moala vidur þa, þad skal vera eirn Eylijfur
Sattmoale vid þa, og Eg vil þeim vid Magt
hallda, og margfallda þa, og Minn Helgedo-
mur skal vera a medal þeirra Eylijflega.
27. Og Eg vil bua a medal þeirra, Og Eg
vil vera þeirra GUD, og þeir skulu vera Mitt
Folk.
28. So þad eirnen Heidingiarner skulu for-
merkia ad Eg er DROttinn sem Jsrael giorer
Heilagann, Þa ed Minn Helgedomur verdur
Eylijflegana a medal þeirra.

## XXXVIII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Gog, ad hann mune veita Guds Folke arœas; Og (II) um hans Eydelegging, sem Guds Folk mune giora.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn,
og sagde,
2. Þu Mannsins Son! Snu þier a moo-
te Gog, sem er j Lande Magog, og hinn Ædste
Hof-

Hofdinge (a) j Mesech og Thubal, og spaadu af honum.

(a) (Mesech og Thubal) Eru og so Tartarar, og Folked a bak vid þa, sem Menn kalla Skyttur, enn þo Mesech hliode aalijkt og Moscovitar, þad er, Russar koma af þeim.

3. Og seg þu, So seger DROTTinn DROTTinn, Siaa þu! Eg vil til vid þig Gog, Þu sem ert hinn Ædste Hofdinge af Herrunum j Mesech og Thubal.

4. Siaa þu! Eg vil um kring snua þier, og leggia þier eirn Bitel j Munn, og Eg vil utleida þig med allt þitt Herlid, Hesta og Menn, alla vel klædda, og þad er eirn mikell Mannfiolde, þeir ed aller hafa Buklara, Skiolldu og Sverd.

5. Þu flytur med þier (b) Persa, Morlendska, og Lybianska, sem aller hafa Skiolldu og Hiaalma.

(b) (Persa) Þeir naa jnn, upp ad Arabia Rijke, þar fyrer mun Tyrkenn hafa nockra af þeim.

6. Þar med (c) Gomer, og allt hans Herlid, med Husenu Thogarma, sem liggur moot Nordrenu, med ollu hans Herlide, Ja, þu flytur margt Herfolk med þier.

(c) Gomer, og Thogarma hans Sonur, Gen. 10. Mielna eg ad sieu þeir Vendiskir, Þviad j Tyrkians Garde er tolud Vendiska.

7. Nu vel, Bu þig vel ut, Þu og allur þinn Mannflockur sem er hiaa þier, og vertu þeirra Hofuds-Madur!

8. Þu skallt heimsoktur verda, epter langann Tijma umlidenn. A þeim hinum sijdarsta Tijma skalltu koma j þad Landed sem þeim er fært aptur fra Sverdenu, og til samans er komed af morgu Folke, sem er uppa Israels Fioll, þau ed j langa Tijma hafa j Eyde legid, og nu utleidt er fra morgu Folke, og bua aller Ugglaust.

9. Þu munt fara upp þangad, og koma þangad med einum stoorum Storme, og þu munt vera sem eitt Skij, til ad hylia Landed, Þu og allt þitt Herlid, og þad hid mikla Folked med þier.

10. So seger DROTTinn DROttinn, A þeim Tijma skalltu aasetia þier soddan, og þu munt hafa vondann Asetning, og þeinkia,

11. Eg vil yferfalla þad Landed sem er aan Murveggia, og koma yfer þa sem so bua med Spekt, og Ugglauser eru, þeir ed aller sitia utann Murveggia, og hafa hvorke Slagbranda nie Port.

12. Uppa þad, ad þu kunner bæde ad ræna og rupla, og laata þijna Hond ganga yfer þa Foreyddu, sem komner eru j Buskaparlag aptur, og yfer þad Folked sem aptur er samansafnad j fra Heidingiunum, og hafa utsett sig til Næringar og Kaupskapar, og bua midt j Landenu.

13. Rijked Arabia, (d) Dedan, og Kaupmeñerner aa Siaafar-Hafenu, og aller mikelshaattar Menn, sem þar eru munu segia til þijn, Eg meina þad, ad þu siert (e) Riettelega komenn til ad ræna, og þu hefur saman dreiged þinn Mannfiolda til ad rupla, uppa þad þu j burt taker bæde Silfur og Gull, og safner Fie og Audæfum, og fremier miked Raan.

(d) (Dedan) Er eirn Partur af Arabia Rijke, Mahometh liggur og so grafenn j Rijke Arabia, Mecha.

(e) (Riettelega komenn) Þad er, O þu giører riettelega og vel! Far ad eins aaframm luckusamlega, Riett, þad er, Þu ert Sa riette Keisare og Herra.

14. Þar fyrer spaadu Mannsins Son! Og segdu til Gog, So seger DROTTinn DROT-Tinn, Er þad eige so? Ad þu munt giæta ad, nær ed Mitt Folk byr ugglaust.

15. Þa muntu koma af þijnu Takmarke, sem er af þeim Endemorkum moot Nordrenu, Þu, og margt Folk med þier, aller a Hestum, eirn mikell Mannfiolde, og eitt megtugt Herlid.

16. Og þu munt ferdast upp hingad, yfer mitt Folk Israel, Lijka sem Skij, ad hylia Landed, Þetta skal ske a þeim sijdarsta Tijma. Enn þar fyrer vil Eg laata þig koma j mitt Land, uppa þad ad hiner Heidnu skulu þeckia Mig, hvornenn ad Eg verd helgadur fyrer þeirra Augum a þier, O þu Gog!

11. 17. So seger DROTTinn DRottinn, Pu ert sa hinn same af hvorium Eg sagde fordum, fyrer Mijna Pienara Propheta na j Israel, sem spaadu a þeim sama Tijma, ad Eg villde laata þig koma yfer þa.

18. Og þad mun skie a þeim Tijma, nær ed Gog kiemur yfer Israels Land, seger DROTTinn DROTTinn, þa skal Mijn (f) Reide uppfara j Minne Grimmd.

(f) (Reide) Þad er, Gog er Mijn Reide og Refsingar Vøndur, vegna Synda mijns Christens Lyds.

19. Og j Minne Vandlæting tala Eg soddann, og j Elldenum minnar Reide, Pviad a þeim sama Tijma skal þar verda ein stoor Skielfing j Israels Lande.

20. So ad Fiskarner j Sionum, og Fuglarner under Himnenum, Fienadurenn a Akurlondunum, og allt þad sem geingur og hrærer sig a Landenu, og aller þeir Menn sem eru a Jordunñe skulu skioalfa fyrer Mijnu Auglite, og Fiollenn skulu um koll kastast, og Vegger og aller Murar skulu nidur hrynia.

21. Og Eg vil kalla Sverded yfer hann, uppa ollum Mijnum Fiollum, seger DRottinn DROTTinn, so sierhvørt Sverded skal vera a moote hiau odru.

22. Og Eg vil dæma hann med Drepsottum og Blode, og laata rigna Hregg-Vidre, med Hagle, Ellde og Brenne-Steine, yfer hann og hans Herlid, og yfer þad mikla Folked sem med honum er.

23. So vil Eg þa vera Dijrdarsamlegur, Heilagur og Alkunnugur fyrer morgum Heidingium, So ad þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

# XXXIX. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Gogs Eydelegging; og (II) ad Guds Folk skyllde vardveitast.

I. Og þu Mannsins Son! Spaadu moote Gog, og segdu, So seger DRottinn DROTTinn, Sioa þu! Eg vil til vid þig Gog! Pu sem ert hinn Ædste Hofdinge j Mesech og Thubal.

2. Sioa þu! Eg vil j kring snua þier, og locka þig, og Eg vil utflytia þig i fra Endemorkunum moot Nordrenu, og laata þig koma uppa Israels Fioll.

3. Og Eg vil sloa Bogann ur þinne Vinstre Hende, og j burt fleygia Skeytunum, af þinne Hægre Hende.

4. Pu skallt a Israels Fiollum nidur vid Velle lagdur verda, þu med ollu þijnu Herlide, og med þvi Folke sem er med þier. Og Eg vil giefa þig Fuglunum, hvadan sem þeir koma fliugande, og Dyrunum a Morkenne ad uppeta þig.

5. Pu skallt vid Velle nidurlagdur liggia, Pviad Eg DROTTinn DROTTinn hefe sagt þetta.

6. Og Eg vil utkasta Ellde yfer Magog, og yfer þa sem Ugglauser bua j (a) Eyunum, Og þeir skulu formerkia ad Eg er DROTTinn.

(a) (Eyunum) Pad er heima j Gogs Lande, skal og so brenna.

7. Pviad Eg vil kunnugt giora Mitt Heilaga Nafn a medal Mijns Folks Israels, og Eg vil ecke leingur laata Mitt hid Heilaga Nafn vanhelga, helldur skulu hiner Heidnu formerkia ad Eg er DROttinn, Sa hinn Heilage j Israel.

8. Sioa þu! Þetta er þegar komed og skied, seger DROTTinn DROTTinn, Þetta er Sa Dagurenn um hvorn Eg hefe talad.

9. Og þeir Borgarar j Stodunum Israels skulu ganga ut, og kinda Elld, og brenna upp Vopnenn, Skiolldana, Buklarana, Bogana, Orvarnar, Strijds-Hamrana, og þau laungu Spiotenn, og upp j Sio Aar skulu þeir ellda af þvi.

10. So ad þeir skulu ecke þurfa ad sækia sier Videnn a Merkurnar, edur hoggva hann j Skogunum, helldur skulu þeir hallda Elldana af Vopnunum. Og þeir skulu ræna þa af hvorium þeir voru rænter, og taka af þeim sem j fra þeim hofdu teked, seger DROTTinn DROTTinn.

11. Og

11. Og þad skal skie a þeim Tijma, þa vil Eg giefa Gog eitt Platz til Greftrunar j Israel, sem er sa Dalurenn þar geinged er til Sioafarens, moot Austrenu, so ad þeir sem þar ganga framm um skulu (b) fordast þann Stadenn, Þar fyrer, ad þeir hafa þar jardad Gog med sijnum Mannfiolda, og þad skal kallast (c) Gogs Muga-Dalur.

(b) (Fordast) Þad er ad byrgia fyrer Vitenn vegna Dijcktar.

(c) Gogs Muga-Dalur) Þviad Mugur og Mannfiolde Gogs liggur þar grafenn.

12. Enn Israels Hus skal jarda þa um Sio Moanude, so ad Landed meige hreinsad verda.

13. Jaa, Allt Folked j Landenu skal nog hafa ad giora ad jarda þa, og þeir munu hafa Frægd fyrer þad, ad Eg auglyste a þeim Deige Mijna Dijrd, seger DROttinn DROttinn.

14. Og þeir munu urskilia Folked þad sem med Jafnade skal fara um kring j Landenu, og þeir sem grafa hina Daudu medur þeim, til ad jarda þa sem epter eru ordner j Landenu, so ad þad verde hreinsad aptur, Epter Sio Moanude skulu þeir (d) rannsaka.

(d) (Rannsaka). Hvort þeir sieu aller grafner, edur ligge enn nu nockurstadar o-grafner.

15. Og þeir sem fara um kring j Landenu, og sjae þeir ad sioa j nockrum Stad eitthvort Manns Bein, þa munu þeir setia þar eitt Merke upp hioa, þangad til ad þeir sem jarda hina Daudu grafa þad eirnenn j Gogs-Muga-Dal.

16. So skal og sa Dalur kallast (e) Hamona, þannenn munu þeir hreinsa Landed.

(e) (Hamona) Þad er Mugur edur Mannfiølde.

17. Nu, þu Mannsins Son! So seger DROTTinn DROTTinn, Seig þu ollum Fuglunum, hvadann sem þeir fliuga, og ollum Dyrunum a Morkenne. Safned ydur til samans, og komed hingad, renned allavegana ad, og komed til samans, til mijns Sloatrunar-Offurs, sem Eg sloatra ydur, eitt miked Sloatrunar-Offur a Israels Fiollum, og eted Kioted, og drecked Bloded.

18. Pier skulud eta Kioted hinna Oflugu, og þier skulud drecka Bloded Hofdingianna a Jordunne, Hrutanna, Lambanna, og Hafranna, Uxanna, sem allersamann eru feiter og vel alder.

19. Og þier skulud eta þad hid Feita, so ad þier skulud sadder verda, og drecka Blodid, so ad þier skulud verda druckner af þvi Sloatrunar-Offrenu sem Eg sloatra ydur.

20. Metted ydur nu vid Mitt Bord, af Hestum og rijdande Monnum, af þeim Oflugu, og allshvattudu Strijds-Folke, seger DROttinn DROttinn.

21. Og Eg vil koma Minne Dijrd a medal Heidingianna, so ad aller Heidingiarner skulu sioa Minn Dom, sem Eg hefe laated ganga, og Mijna Hond, sem Eg hefe lagt a þa.

22. Og so skal Israels Hus formerkia, ad Eg er DROttinn þeirra Gud, j fra þeim Deige, og frammveigis.

23. Og Heidingiarner skulu formerkia, Hvornenn þad Israels Hus er j burt flutt, fyrer sinna Misgiorda saker, og þad þeir hafa syndgast a mote Mier, Þar fyrer hefe Eg byrgt Mitt Auglit fyrer þeim, og Eg hefe giefed þa j Hendur sinna Motstodu-Manna, so ad þeir allersaman skulu falla fyrer Sverde.

24. Eg giorde vid þa, lijka sem þeirra Synder og Yfertrodslur hofdu verdskulldad, og byrgde Mitt Andlit fyrer þeim.

II. 25. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn, Nu vil Eg snua Herleidingunne Jacobs, og Lijknsamur vera ollu Israels Huse, og vandlæta um Mitt Heilaga Nafn.

26. Enn þeir munu bera sijna Forsmaan, og allar sijnar Synder, med hvorium þeir hafa syndgast a mote Mier, nær ed þeir bua Ugglauser j sijnu Lande, so ad eingenn skielfe þa.

27. Og nær ed Eg hefe sokt þa aptur j fra þvi Folkenu, og samansafnad þeim af sinna Ovina Lande, og nær ad Eg verd Helgadur af þeim, fyrer Augsyn margra Heidingia,

28. So munu þeir þad formerkia, ad Eg er DROttinn þeirra Gud, sem liet burt flytia

þa

þa a medal Heidingianna, og hefe samansafnad þeim aptur j þeirra Land, og læted ecke eirn af þeim þar epter verda.

29. Og Eg vil ecke meir byrgia Mitt Andlit fyrer þeim, þviad Eg hefe uthellt mijnum Anda yfer Israels Hus, seger DROttinn DROttinn.

# XL. Capitule.

Ezechiel ser i Anda (I) Einn Byggingar Meistara, er uppreiste Eina Bygging, Vidlijka sem Hin Jardneska Jerusalem var (II) Epter þeim Ytsta Mur og Porte, so og (III) Þvi Ytsta Forbyrge; þar ad auke (IV) epter þvi Innsta Forbyrge sem var i Midiunne, (V) epter Forbyrge Prestanna, og (VI) seinast epter Vopna-Huse Musteresins.

I. 1. A þvi Tuttugasta og Fimmta voru Herleidingar Aare, þann Tijunda Dagenn j Mánudenum, j Upphafenu Aarsins, þad er þad Fiortanda Aared epter þad ed Stadurenn var sleigenn. Riett a þeim sama Deige kom Hond DROttins yfer mig.

2. Og flutte mig þangad j burt fyrer Gudomlega Syn, sem var j Israels Land. Og sette mig uppa eitt miog ofur-hatt Fiall, þar uppa var so sem eirn byggdur Stadur, fyrer Sunnann framm.

3. Og þa hann hafde flutt mig þangad, Sioa þu! Þa var þar eirn Madur, hans Yferlitur var sem Kopar, hann hafde eirn Lijnu-Streing, og eina Mæle-Staung j sinne Hende, og stood under Portenu.

4. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Sioa þu!, og heyr þu til med Athygle, og hugleid þu vel ad þvi sem Eg vil syna þier. Þviad þu ert þar fyrer hingad fluttur, ad eg skule syna þier þad, so ad þu skuler kunngiora Israels Huse allt þad sem þu sier hier.

II. 5. Og sioa þu! Þar gieck eirn Murveggur utan um Hused, allt j kringum þad, og Madurenn hafde Mæle-Staungena j Hendenne, Hun var Sex Alna laung, hvor Alenn var eirnre Þver-Hond leingre enn almenneleg Alenn. Og hann mællte Breiddena a Byggingunne eina Mæle-Staung, og eina Mæle-Staung a Hædena.

6. Og hann kom til Portsins sem laa j mot Austrenu, og hann stie upp epter þess Troppum, og mællte Dyra-Trien a Portenu, hvort Dyra-Tried var eirnrar Mæle-Stangar breidt.

7. Og hann mællte so eirnenn þau Herberginn sem voru beggia vegna hia Portenu, ad Leingdenne eina Mæle-Staung, og ad Breiddenne eina Mæle-Staung, og Rumed a millum Herbergianna var Fimm Alna breidt.

8. Og hann mællte eirnenn Dyra-Tried, innan til hia Portenu, upp ad Lopt-Husenu eina Mæle-Stong.

9. Og hann mællte Lopt-Hused innann til hia Portenu, eina Mæle-Staung, og hann mællte Lopt-Hused hia Portenu Atta Alner, og Utbroted þar a Tvær Alner, og Lopt-Hused jnnann til ad Portenu.

10. Og Herbergenn voru Þriu a hvoria Hlid hia Portenu j mot Austrenu, Jaa, þad eina so breidt sem hitt annad, Og þar stoodu Utbrot bædumeigenn, þau voru jafn-stoor.

11. Þar epter mællte hann Vijddena Dyranna a Portenu, sem var Tiju Alna, og Leingdena a Portenu Threttan Alna.

12. Og framme fyrer Herbergiunum var Rum bædumeigenn, eirnrar Alnar, enn Herbergenn voru Sex Alna, beggia vegna.

13. Þar til mællte hann Ported fra Þekiunne Herbergesins, jnn til Þekiunnar a Portenu, Fimm Alna og Tuttugu breidt, og hvoriar Dyrnar stodu j giegn odrum.

14. Hann giorde og eirnenn Utbrot, Sextije Alna, og eirn Forgard fyrer hvoriu Utbrote, hia Portenu allt um kring.

15. Og jnn til þess Lopt-Hussins hia þvi jnnra Portenu þar jnn er geinged, þa voru Fimmtiju Alner.

16. Og þar voru mioer Gluggar jnnan til a Herbergiunum, og Utbrotenn jnnan verdt hia Portenu allt um kring. So voru þar

og

og innan til Vind=Augu a Lopt=Husenu um kring, og a Utbrotunum allt um kring, var Palm=Vidar Laufa=Verk.

III. 17. Og Hann leidde mig framnleidis til hins ytsta Forgardsins, og sioa þu! Þar voru Herberge, og eitt Steinlagt Golf j Forgardenum, allt um kring, og Priatijge Herberge a Golfenu.

18. Og þar var eitt hvatt Steinlagt Golf hioa Portunum, so langt sem Portenn voru, hioa þvi nedsta Steinlagda Golfenu.

19. Og hann mællte Breiddena a þvi nedsta Portenu, framan fyrer þeim innsta Forgardenum, utan til, Hundrad Alna, bæde mot Austrenu og Nordrenu.

20. So mællte hann og eirnenn þad Ported, sem loa mot Nordrenu, j hioa þeim ytsta Forgardenum, ad Leingdenne og Breiddenne.

21. Þad hafde og eirnenn Þriu Herberge hvoriümeigenn, og þad hafde eirnenn sijn Utbrot, og Lopt=Hus, lijka so stoor sem hioa þvi firsta Portenu, Fimmtijge Alna ad Leingdenne, og Fimm Alna og Tuttugu ad Breiddenne.

22. Og þad hafde eirnenn sijn Vind=Augu, og sijn Lopt=Hus, og sijn utskorenn Palm=Vidar=Lauf, Lijka sem Ported mot Austrenu, og þad hafde Sio Troppur þar ed upp var geinged, og þad hafde sitt Lopt=Hus þar frammе fyrer.

23. Og Ported hioa þeim innsta Forgardenum var giegnt þvi Portenu sem stod moot Nordrenu og Austrenu, Og hann mællte Hundrad Alna fra þvi ödru Portenu til annars.

24. Þar epter leidde hann mig mot Sudrenu, og sioa þu! ad þar var og eitt Port a moot Sudrenu, og hann mællte þess Utbrot og Lopt=Hus, lijka sem hinna annara

25. Þad hafde og eirnenn Vind=Augu og Lopt=Hus, allt um kring, lijka sem þau önnur Vind=Augu, Fimmtijge Alna laung, og Fimm og Tuttugu Alna breid.

26. Og þar voru og so Sio Troppur upp ad, og eitt Lopt=Hus þar framme fyrer, og utskorenn Palm=Vidar=Lauf, a þess Utbrotum a hvorre Sijdu.

27. Og hann mællte eirnenn þad Ported hioa þeim innsta Forgardenum moot Sudrenu, sem var Hundrad Alna, fra þvi eina Sudur=Portenu til hins annars.

IV. 28. Og Hann leidde mig enn leingra framm, j giegnum þad Sydra Ported, j þann innra Forgardenn, og mællte þad sama Port mot Sudrenu, lijka so stort sem hin önnur.

29. Medur þess Herbergium, Utbrotum, og Lopt=Husum, og medur Vind=Augum og Lopt=Svolum þar a, lijka so stor sem hin önnur allt um kring, Fimmtijge Alna laung, og Fimm og Tuttugu Alna breid.

30. Og þar gieck eirn Lopt=Salur um kring, Fimm og Tuttugu Alna langur, og Fimm Alna breidur, og hann stod þar framanverdt a mote þeim ytra Forgardenum,

31. Og hann hafde utskorenn Palm=Vidar=Lauf a Utbrotunum, og þar voru atta Troppur upp ad ganga.

32. Þar epter leidde hann mig til þess innra Portsins j moot Austrenu, og mællte þad lijka so stoort sem hin önnur.

33. Medur þess Herbergium, Utbrotum og Lopthusum, og þess Vind=Augum, og Lopt=Svolum allt um kring, lijka so stoor sem hin önnur, Fimmtijger Alna long, og Fimm og Tuttugu Alna breid.

34. Og þad hafde eitt Lopt=Hus giegnt þvi ytsta Portenu, og utskorenn Palma=Lauf a Utbrotunum boadumeigenn, og atta Troppur upp ad.

35. Þar epter leidde Hann mig ad þvi Portenu moot Nordrenu, þad mællte Hann lijka so stoort sem hin önnur.

36. Medur þess Herbergium, Utbrotum og Lopt=Husum, og þess Vind=Augum og Lopt=Svolum, allt um kring, Fimmtijge Alna laungum, og Fimm og Tuttugu Alna breidum.

37. Og þad hafde eirnenn eitt Lopt-Hus giegnt þeim ytsta Forgardenum, og utskored Palma Lauf-Verk a Utbrotunum bꜳdu meigenn, og ꜳtta Troppur upp ad.

38. Og nedann til, upp ad Utbrotunum, hiꜳ hvoriu Porte, var eitt (a) Herberge med einum Dyrum, j hvort Menn logdu Brenne-Offred.

(a) (Herberge) Þad hafa vered þau afskommtudu Herberge, sem Gud-Spialla-Mennerner kalla Gazophylacia, Guds Kistu, Þesse voru morg, sum handa Prestunum, Levitunum, Saung-Monnonum, hvar jnn þeir logdu sijn Klæde og Fans, enn sum þar sem riikt Folk lagde jnn sijna Peninga, Korn og ar..ad, sem aflagt vard til Offurs, edur til annarar Guds Þionustu var, mootlijka sem vorar Stukur.

39. Enn j Lopt-Husenu, fyrer Portenu, stódu Tvo Bord a hvoria Hlid, a hvorium þeir skylldu slꜳtra Brenne-Offrenu, Synda-Offrenu, og Saka-Offrenu.

40. Og a Hlidenne utan til, þar ed geinged var upp ad Portenu, moot Nordrenu, stoodu eirnenn Tvo Bord, og til hinnar annarar Siidu, under Lopt-Huse Portsins, eirnenn Tvo Bord.

41. So stoodu a hvoria Siidu Fiogur Bord, þad eru ꜳtta Bord til samans, sem Menn slꜳtrudu uppa.

42. Og þau Fiogur Bordenn, sem til Brenne-Offursins voru giord, þad voru uthoggner Steinar, hꜳlf onnur Alenn ad Leingd og Breidd, og Alenn ad Hæd, uppa hvor Menn logdu allra handa Verk-Fære, til ad slꜳtra med Brenne-Fornunum og odru Offre.

43. Og þar geingu Listur utann um kring, hengdar jnn ad, Þverhandar ad Hæd, og a þaug Bordenn ꜳttu Menn ad leggia þad Kioted, sem offrast skyllde.

V. 44. Og þar voru Herberge til Saung-Mannanna, utann fyrer þvi jnnra Portenu, j þeim jnnra Forgardenum, Eitt hiꜳ þeirre Hlidenne upp vid Parted, moote Nordrenu, þad horfde vid Sudrenu, hitt Annad upp ad Hlidenne moot Austrenu, þad horfde vid Nordrenu.

45. Og Hann sagde til mijn, Þau Herbergenn moot Sudrenu heyra Prestunum til, sem þiona skulu j Husenu.

46. Enn þau Herbergenn moot Nordrenu heyra Prestunum til, sem þiona Alltarenu. Þesser eru Zadochs Born, hvorier alleinasta af Bornum Levi skulu framm ganga fyrer DROttinn, til ad þiona honum.

47. Og Hann mællte Plꜳtsed j Husenu, sem var Hundrad Alna langt, og Hundrad Alna breidt Ferkantad, og þar stood eitt Alltare riett framan fyrer Musterenu.

VI. 48. Og Hann leidde mig jnn j Lopt-Salenn Musteresins, og mællte Lopt-Salenn, Fimm Alna breidann a hvoria Siidu, og Parted a hvoria Siidu, Þriggia Alna breidt.

49. Enn Lopt-Salurenn var Tuttugu Alna langur, og Ellefu Alna vijdur, og hafde Troppur sem Menn geingu þar upp ad, og þar stoodu Pilarar nedann ad, upp ad Utbrotenu, eirn a hvoria Hlid.

## XLI. Capitule.

Ezechiel seger (I) fra Bygging Portsins; (II) Hussins og (III) Tre-Alltaresins.

I. Og Hann leidde mig jnn j Mustered, og mællte Utbrotenn hiꜳ Veggiunum, þau voru Sex Alna vijd, a hvoria Hlid, so vijdt sem Hused var.

2. Og Portenn voru Tiju Alna breid, Enn Veggurenn a hvoria Hlid hiꜳ Portenu var hvor fyrer sig Fimm Alna breidur. Og hann mællte Rumed j Musterenu, þad var Fiorutiige Alna ad Leingdenne, og Tuttugu Alna ad Breiddenne.

3. Og hann gieck jnnann til þar jnn, og mællte Dyrnar Tvær Alner, og Dyrnar voru Sex Alner, og Breiddenn Dyranna Sio Alner.

4. Og hann mællte Tuttugu Alner a Leingdena, og Tuttugu Alner a Breiddena hiꜳ Musterenu, Og hann sagde til mijn, Þetta er hid Allra-Heilagasta.

II. 5. Og hann mællte Veggenn a Husenu, Sex Alna ad Hæd, þar uppa voru Svaler allavegana utann um kring, utskipter j Herberge, sem voru Fiogra Alna vijd a alla Vegu.

6. Og þau sömu Herberge voru Þrettan og Tuttugu hvoriumeigenn, eitt hia ödru, og þar stoodu Stoolpar nedan under, upp vid Veggena a Husenu, allavegana um kring, sem þad boaru.

7. Og yfer þessum voru enn fleyre Lopt-Svaler allt um kring, og Svalerner voru ofann til vijdare, so ad Menn geingu fra hinne nedstu, og til hinnar sem j Midi var.

8. Og fra þeirre j Mided var, til hinnar Hærstu, og hvor ein stood Sex Alna yfer annare.

9. Og Vijddenn a þeirre hinne Efstu Lopt-Svölunne var Fimm Alner, og Stoolparner boaru Svalernar hia Husenu.

10. Og þar voru Tuttugu Alner j fra ödrum Veggnum til eins annars j Husenu.

11. Og þar voru Tvær Dyr, vid Vindel-Troppurnar upp epter, einar a moot Nordrenu, og adrar a moote Sudrenu, og Vindel-Troppurnar voru Fimm Alner a Vijdd.

12. Og Murenn moote Vestrenu var Fimmtan og Sextijge Alna vijdur, og Nijutijge Alna langur.

13. Og hann mællte Leingdena Hussens, þad hafde Hundrad Alna utar j gegn, Murenn og þad sem þar var vid.

14. Og Vijddenn framan fyrer a Husenu, moote Austrenu, med þvi sem þar var vid, var og Hundrad Alna.

15. Og hann mællte Leingdena a Bygginngunne, med öllu þvi sem þar studde ad, fra einu Horninu til annars, þad var Hundrad Alner, a hvoria Sijdu, med þvi hinu jnnra Musterenu, og Lopt-Husenu j Forgardenum.

16. Med þeim Dyrunum, Vind-Augum, Hyrningum, og þeim þremur Lopt-Svölum, og Standþilenu allt um kring.

17. Hann mællte og eirnenn Hvorsu Hoatt þad var fra Jordunne upp ad Vind-Augunum, og hvorsu breid þad Vind-Augunn skylldu vera. Og hann mællte fra Portenu, jnn til hins Allra-Helgasta, bæde jnnann og utann, allt um kring,

18. Og þar voru Cherubim, a öllu Husenu, riett um kring, fra nedanverdu og ad efstu a Dyrunum, og a Veggiunum, og Palma-Lauf-Verk giort a millum Cherub.

19. Og hvor Cherub hafde Tvo Hofud, ödrumeigenn so sem Manns Hofud.

20. Enn ödrumeigenn so sem eitt Leons Hofud.

21. Og Dyrnar a Musterenu voru ferkantadar, og aller Hluter voru lystelega til samans setter, hvor vid annann.

III. 22. Og Trie-Alltared var Þriggia Alna hoatt, og Tveggia Alna a Leingd og Breidd, og þess Hyrningar, og allar þess Sijdur voru af Trie, og hann sagde til mijn, Þetta er þad Borded sem standa skal fyrer DRottne.

23. Og Dyrnar, bæde a Musterenu, og hia þvi Allra-Helgasta,

24. Hofdu Tvo Hurdar-Vænge, sem Menn lietu upp og aptur.

25. Og þar voru og eirnenn Cherubim, og utskorenn Palm-Vidar Lauf a, lijka sem a Veggiunum. Og þar voru sterkar Steingur fyrer, giegnt Lopt-Husenu.

26. Og þar voru a mid Vind-Augu, og morg utskorenn Palm-Vidar Lauf, allt um kring a Lopt-Husenu, og a Veggiunum.

# XLII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um þann Ytsta Forgard, og (II) um þann Ytsta Mur.

I. Og hann leidde mig ut til hins ytra Forgardsins, moote Nordrenu, a mille Herbergianna, sem voru giegnt Byggingunne, þeirre sem stood vid Musterid, og laau til Nordurs, a moots vid Mustered.

2. Hvor Flotur ed var Hundrad Alna langur, j fra Portenu moot Nordrenu, og Fimmtijge Alna breidur.

3. Par voru Tuttugu Alner a moote þeim jnnra Forgardenum, og j moot Steingolfenu, j þeim ytra Forgardenum, og Priatijge Alner, fra þvi einu Hornenu til annars.

4. Og þar var eirn Flotur jnnann til fyrer Herbergenu, Tiju Alna breidur, fyrer Herbergis Dyrunum, þetta lꝏ allt samann moot Nordrenu.

5. Og ofann yfer þessum Herbergium voru onnur miorre Herberge, þviad Rumed a þvi hinu nedsta, og þvi Herbergenu sem j Midded stood, var ecke stoort.

6. Pviad þad voru Priu Herberge ad Hæd, og hofdu þo ongvann Stoolpa, lijka sem þeir Stoolparner sem Forgardarner hofdu, helldur voru þau sett sliett hvort ofann a annad.

7. Og sa ytre Forgardurenn var umkringdur med einum Murvegg, hiꝏ hvorium ad stoodu Herbergenn, hann var Fimmtijge Alna langur.

8. Og Herbergenn stoodu hvort epter odru, og so Fimmtijge Alna ad Leingd, hiꝏ þeim ytra Forgardenum, Enn Rumed framme fyrer Musterenu var Hundrad Alna langt.

9. Og nidre fyrer Herbergiunum var eirn Flotur a moote Austrenu, a hvorium þad geinged var af þeim ytra Forgardenum.

10. Og þar voru eirnenn Herberge upp vid Murenn moot Austrenu.

11. Og þar var og eirn Flotur framme fyrer, Lijka sem fyrer hinum odrum Herbergiunum moot Nordrenu, og aller Hluter voru lijka med Leingd og Breidd, og ollu þvi ed þar vàr a, lijka so sem ofann a hinum odrum.

12. Og moot Sudrenu voru eirnenn lijka þvilijk Herberge, medur sijnum Dyrum, fyrer þeim Flotnum voru Dyrnar moot Sudrenu, til hvorra ad Menn koma, fra þeim Murnum sem liggur j moote Austrenu.

13. Og hann sagde til mijn, Pau Herbergenn mote Nordrenu, og Herbergenn mote Sudrenu, giegnt Musterenu, þau heyra til Helgedomenum, j hvorium þad Prestarner Matar neyta, nær ed þeir offra DROTTne þad hid Allra-Heilagasta Offred, og þar skulu þeir jnnleggia þau Allra-Heilogustu Offur, sem eru Matar-Offrenn, Synda-Offrenn, og Saka-Offrenn, þviad þad er einn Heilagur Stadur.

14. Og nær ed Prestarner ganga þangad jnn, þa skulu þeir ecke ganga ut aptur af Helgedomenum, j þann Ytra Forgardenn, helldur skulu þeir aadur leggia af sier sijn Klæde, j hvorium þeir hafa þionad, j þau somu Herbergenn, þviad þau eru Heilog, og skulu færa sig aptur j onnur Klæde, og ganga so ut a medal Folksins.

II. 15. Og þa ed Hann hafde mællt Musterid alltsaman jnnantil, Leidde hann mig ut ad Portenu, mote Austrenu, og mællte fra þvi enu sama, alla vegana um kring.

16. Mot Austrenu mællte hann fimm Hundrud Mæle-Steingur a Leingd.

17. Og hann mællte so eirnenn moot Nordrenu, Fimm Hundrud Mæle-Steingur ad Leingd.

18. Og lijka so mot Sudrenu, Fimm Hundrud Mæle-Steingur ad Leingd.

19. Og þa ed hann kom mot Vestrenu, þa mællte hann eirnenn Fimm Hundrud Mæle-Steingur ad Leingd.

20. So hefur Murenn, sem hann hafde mællt, a hvoria Sijdu ferkantadur allt um kring, Fimm Hundrud Mæle-Steingur, hvar med þad hid Heilaga skyllde fraskiled verda fra þvi Oheilaga.

## XLIII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Vegsemd Byggingarennar, og (II) um Hennar Helge.

I. Og Hann leidde mig aptur ad Portenu mot Austrenu.

2. Og sioa þu! ad Dijrdenn Guds Israels kom ur Austrenu, og hliodade, so sem miked Vatn hliodar. Og þad Lyste miog a Jordunne af hans Dijrd.

3. Og,

3. Og þad var lijka so sem su Synenn sem eg hafde sied hioa Vatnenu Chebar, j þann Tijma ed eg kom, ad Stadurenn skyllde j Eyde leggiast. Pa fiell eg nidur a mijna Asionu.

4. Og Dijrdenn DROTTins kom jnn i Hused, jnn um Ported a mote Austrenu.

5. Pa lypte eirn Vindur mier upp, og flutte mig jnn j þann jnnra Forgardenn, og sioa þu! ad Dijrdenn DROTTins uppfyllte Hused.

6. Og eg heyrde Eirn tala til mijn, ut af Husenu, og eirn Madur stood hioa mier.

7. Og sagde til mijn, Pu Mannsins Son! Petta er Stadur Mijns Tignar-Sætes, og Stadur Minna Foota, j hvorium ad Eg vil bua Eylijflegana, a medal Israels Barna. Og Israels Hus skal ecke meir saurga Mitt hid Heilaga Nafn, hvorke þeir nie þeirra Konungar, medur þeirra Hoorun, og medur Daudum Lijkomum sinna Konunga j þeirra Hædum.

8. Peir sem settu sijna (a) Proskulldu hioa Mijnum Proskellde, og sijna Dyrastafe, hioa mijnum Dyrastofum, so þar var ecke utann eirn Veggur a millum Mijn og þeirra. Og þeir hafa so saurgad Mitt hid Heilaga Nafn, medur sijnum Svijvirdingum sem þeir giordu, Par fyrer hefe Eg eirnenn foreydt þeim j Minne Reide.

(a) (Sijna Proskulldu) Pad er Kongarner hafa sett Capellur hioa Musterenu, j hvorium þeir vorn grafner, og þar var og so halldenn su Guds Pionustu giord sem var forbodenn.

9. Enn nu skulu þeir j burt kasta sine Hoorun, og Lijkum sinna Konga, langt j burt fra Mier, og Eg vil bua a medal þeirra Eylijflegana.

10. Og þu Mannsins Son! Syn þu Israels Huse þetta Mustere, ad þeir skammest sijn fyrer sinna Misgiorda Saker, og loatu þa taka eina skyra Fyrermindan þar af.

11. Og nær ed þeir skammast sijn, vegna allra sinna Verka, þa syn þeim þennann Form og Fyrermindan a Husenu, og þess Utgang og Inngang, og alla þess Skickun, og allar þess Sidveniur, og alla þess Setninga, og allt þess Logmaal, og skrifa þad fyrer þeim, so ad þeir skulu hallda allar þess Skipaner, og allar þess Sidveniur, og giora þar epter.

12. Enn þetta skal vera Hussens Logmaal, A Hædum Fiallsins, so vijdt sem þess Takmark er, þa skal þad vera hid Allra-Helgasta, þetta er Hussens Logmaal.

13. Enn þetta er Malinginn Alltaresins, epter þeirre Alenn sem er einne Pver-Hond leingre enn ein almenneleg Alenn. Fotstallurenn a þvi er ein Alenn a Hæd, og eirnrar Alnar breidur, og Alltared nemur upp ad Listenne, hvor ad er Spannar breid, allt um kring, og þad er þess Hæd.

14. Og j fra Fotstallenum af Jordunne, til hins nedsta Prepsins, er tveggia Alna hatt, og eirnrar Alnar breidt. Enn fra þvi sama litla Prepenu, til hins mikla Prepsins, er Fiogra Alna hoatt, og Alnar breidt.

15. Og (b) Harel Fiogra Alna hoatt, og fra Ariel ofanverdum Fiogur Horn.

(b) (Harel) Kallast Guds Fiall, Ariel Guds Leon, So kallar hann þad effsta a Alltarenu, þar offrad var a; Asara kallar hann þad minna Preped a Alltarenu, þar Menn kunna ad standa, sumer a nedra, sumer a þvi Hærra: So kallar hann og so þad effsta Plats a Alltarenu Asara, annars heiter Asara, Hioastod a Norrænu, epter þeirra Maalistu, Footenn a Alltarenu nefner hann Kiolltu, edur Barm.

16. Og Ariel var Tolf Alna ad Leingd, og Tolf Alna ad Breidd, Ferkantad.

17. Pad effsta Preped var Fiortan Alna langt, og Fiortan Alna breidt, Ferkantad, og þar gieck ein List allavega utan um kring, sem var Hoalfrar Alnar breid, og Fotstallurenn þar a, var Alenn ad Hæd, og Troppurnar voru j mot Austrenu.

18. Og hann sagde til mijn, Pu Mannsins Son! So seger DROttinn DRottinn, Petta skal vera Sidvenia Alltaresins a þeim Deige, nær ed þad er giort, ad þeir legge

Brenne-Offred þar uppa, og dreise þar a Blodenu.

19. Og þu skallt giefa Prestunum af Levi, og Zadochs Sæde, sem fyrer Mier ganga, til ad þiona Mier, eirn ungann Uxa, til Synda-Offurs, seger DROTTinn DROTTinn.

20. Og þu skallt taka af þvi sama Blode, og stockva þvi a þau fiogur Horninn, og a þær Fiorar Hyrningar, hioa þeim effsta Pallenum, og allt um kring Listena, þar med skalltu hreinsa það, og Friðþægia.

21. Og þu skallt taka Uxann Synda-Offursins, og brenna hann upp j einum Stad, sem þar er til einkadur j Husenu, ute fyrer Helgedomenum.

22. Enn þann annann Dageñ skalltu offra einum Kiarn-Hafre, sem er Lastalaus, til Synda-Offurs, og hreinsa Alltared þar med, lijka sem það var hreinsad med Uxanum.

23. Og nær ed Hreinsunenn er nu utendud, þa skalltu offra einum ungum Uxa, sem er Lastalaus, og einum Hrut af Hiordenne Lastalausum.

24. Og þu skallt offra þeim badum fyrer DROTTne, og Prestarner skulu dreisa þar Sallte a, og Fornfæra þa so DROTTne, til eins Brenne-Offurs.

25. So skalltu, Sio Daga j samt, hvorn epter annann, daglegana offra einum Kiarn-Hafre, til Synda-Offurs, og þeir skulu offra einum Ungum Uxa, og einum Hrut af Hiordenne, badum Lastalausum.

26. Og skulu so, j Sio Daga, Forlijka og hreinsa Alltared, og uppfylla sijnar Hendur.

27. Og epter þa somu Daga skulu Prestarner, a þeim Attunda Deigenum, ætijd og alla Tijma epter það, offra ydru Brenne-Offre, og ydru Packlætis-Offre uppa Alltarenu, so vil Eg verda ydur Naadarsamlegur, seger DROTTinn DROTTinn.

## XLIV. Capitule.

Ezechiel seger fra (I) Hverier ei mættu; og (II) Hverier ed mættu hafa nockra Sijslun i þeirre Nyu Bygging.

I. Og Hann leidde mig ut aptur, ad þvi ytsta Portenu Helgedomsins, mote Austrenu, Enn það var til luckt.

2. Og DROTTinn sagde til mijn, Þetta Port skal vera til luckt, og ecke upp lukast, og jnn um það skal eingenn ganga, utann Alleinasta DROTTinn Gud Israels, Hann skal ganga þar jnn um, og það skal vera til luckt.

3. Ad Hofdingianum þo undann teknum, þviad Hofdinginn skal sitia þar jnne, til ad neyta Brauds fyrer DROTTne, hann skal jnn ganga um Lopt-Hused, og ganga so ut aptur um það sama.

4. Sijdann leidde hann mig ad þvi Portenu mote Nordrenu, framme fyrer Husenu, Og eg sea, og sioa þu! ad Hused DROTtins vard fullt af Dijrd DROTTins, og eg fell framm a mijna Asionu.

5. Og DROTTinn sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Hygg þu glogglega ad, og sioa þu, og hlydtu jnnvirdelega ollu þvi, hvad Eg vil segia þier, af ollum Sidveníum og Setningum j Huse DROTTins, og giæt vel ad þvi, Hvornenn ad þar skal jnn ganga, og ad ollum Utgaungum Helgedomsins.

6. Og seg þu þvi Ohlydna Israels Huse, So seger DROTTinn DROTTinn, Þier af Israels Huse giored þar hellst ofmiked af, med allar ydar Svijvirdingar.

7. Þviad þier jnn leided j Minn Helgedom Framande Folk med einu O-umskornu Hiarta, og O-umskornu Hollde, fyrer hvoria ad þier Ohelged Mitt Hus, nær ed þier offred Mijnu Braude, Feitenne og Bloodenu.

8. Og brioted so Minn Saattmaala med ollum ydar Svijvirdingum, og hallded ei Sidveniurnar Mijns Helgedoms, helldur giored ydur sioalfum nyar Sidveniur, j Mijnum Helgedome.

9. Þar fyrer seger DRottinn DRottinn so, Þar skal eingenn Framande, medur einu Oumskornu Hiarta, og Oumskornu Hollde koma

koma j Minn Helgedom, af øllum þeim Utlendingum sem eru a medal Jsraels Barna
II. 10. Jáa, og ecke helldur Levitarner, sem burt viku fra Mier, og eru geingner Villuvega fra Mier, med Jsrael, epter þeirra Afgudum, þar fyrer skulu þeir bera sijnar Synder.

11. Enn þeir skulu þiona j Mijnum Helgedome, j Hus-Dyranna Embætte, og þeir skulu þiona j Husenu, og skulu ecke utan slaatra Brenne-Offrenu, og ødru þvi Offre sem Folked hefur hingad, og standa fyrer Prestunum til ad þiena þeim.

12. Af þvi þeir þionudu hinum ødrum, fyrer þeirra Afgudum, og gaafu so Jsraels Huse eina Hneixlan til ad syndgast. Þar fyrer hefe Eg utriett Mijna Hond yfer þa, seger DROttinn DROttinn, ad þeir hliota ad bera sijnar Synder.

13. Og ei skulu þeir naalægiast Mig, til ad frammflytia Mitt Kienne-Manns Embætte, og eige helldur ad koma til nockurs Mijns Helgedoms, hiaa þvi Allra-Heilagasta, helldur skulu þeir bera sijna Svivirdu, og sijnar Svijvirdingar sem þeir frömdu.

14. Þar fyrer hefe Eg sett þa til Voktunar-Manna, til allrar Þionustu j Husenu, og til alls þess sem Menn skulu giora þar jnne.

15. Enn Prestarner af Levitunum, Zadocks Born, sem hielldu Sidveniurnar Mijns Helgedoms, þa ed Jsraels Born fiellu fra Mier, þeir skulu ganga fyrer Mig, og þiona Mier, og standa framme fyrer Mier, so ad þeir skulu offra Mier þvi enu Feita og Blodenu, seger DRottinn DROTTinn.

16. Og þeir skulu ganga jnn j Minn Helgedoom, og ganga fyrer Mijnu Borde, ad þiona Mier, og hallda Mijnar Sidveniur.

17. Og nær ed þeir vilia ganga jnn um Ported þess jnnra Forgardsins, skulu þeir færa sig j Lijn-Klædenn, og ecke neitt Ull-Klæde a sier hafa, so leinge sem þeir þiena j Portenu jnnra Forgardsins.

18. Og þeir skulu hafa Lijn-Skart a sijnum Hofdum, og af Lijne Nidur-Klæde um sijnar Lendar, og eige skulu þeir gyrda sig j (a) Sveita.

(a) (Sveita) Þad er, Saurga ecke þaug Heiløgu Klæde med Sveita, so sem Lands-Prestar plaga ad giora sijnum Messu-Klædum. Hieronymus utleggur þetta so, ad þeir skule ecke gyrda sig ofhardt, þad sie, ad giora ecke neitt nauduger, helldur allt vel viliuger, æn Sveita edur Mædu.

19. Og nær ed þeir ganga einhvøriu Sinne ut til Folksins, til þess ytra Forgardsins, þa skulu þeir færa sig af þeim Klædunum, j hvørium þeir hafa þionad, og leggia þau enu sønu j Herberge Helgedoomsins, og færa sig aptur j onnur Føt, og helga ecke Folked j sijnum eigenu Klædum.

20. Eige skulu þeir raka sijn Høfud, og þeir skulu ei helldur laata Haared vaxa miog offa-langt, helldur skulu þeir laata kringskiera Haared.

21. Og eingenn Prestur skal nockud Vijn drecka, nær þeir skulu ganga j þann jnnsta Forgardenn.

22. Og øngva Eckiu, nie þa sem vid Mann er skilenn, skulu þeir taka sier til Eigennkonu, helldur eina Mey af Sædenu Hussens Jsraels, edur eina epterlaatna Prests Eckiu.

23. Og þeir skulu kienna Mijnu Folke, so þad þeir vite ad giora Greinarmun a millum hins Heilaga, og hins Oheilaga, og a mille hins Hreina, og hins Ohreina.

24. Og nær ed þar kiemur eitthvørt Maalefne fyrer þa, þa skulu þeir standa og dæma um þad, og urskurda þad epter Mijnum Laga-Riette, og hallda Mijn Bodord og Sidveniur, og hallda allar Mijnar Haatijder, og helga Mijna Sabbaths-Daga.

25. Og þeir skulu ecke ganga til neins Frammlidens, og saurga sig, utann alleinasta til Fødur og Modur, Sonar eda Dottur, Brodur eda Systur, sem ecke enn nu hefur gift vered, yfer þeim meiga þeir saurga sig.

26. Og

26. Og Mann skal telia Sio Daga epter þad ed hann er hreinsadur.

27. Og nær ed hann geingur jnn aptur j Helgedoomenn, j þann jnnsta Forgardenn, til ad þiona j Helgedoomenum, so skal hann offra sijnu Synda-Offre, seger DRottinn DRottinn.

28. Enn Arfleifdenn sem þeir skulu hafa, vil Eg sioalfur vera, Þar fyrer skulud þier ecke ert Land giefa þeim j Jsrael til Eignar, þviad Eg er þeirra Arfleifd.

29. Þeir skulu hafa sitt Upphellde af Matar-Offrenu, Synda-Offrenu, og Saka-Offrenu, og allt þad sem forbannad er j Jsrael þad skal vera þeirra.

30. Og allur hinn Firste Avoxtur, og Frumgietningarner, af ollu Upphafningar-Offre, þa skal vera Prestanna. Þier skulud og eirnenn giefa Prestunum hid Firsta af ollum Mat, so ad Blessunenn skule vera j þijnu Huse.

31. Enn þad sem er eitt Hræ, edur þad sem dyr-bited er, sie þad af Fuglum, eda Fienade, þad sama skulu Prestarner ecke eta.

## XLV. Capitule.

Ezechiel seger (I) fra Upplyptingar-Offre af Hlutskipte þess Nya Lands; (II) Aminner Stiornendur ad giora Log og Rett; Og greiner Hversu miklu ad skule offrast af Sierhveriu.

I. Nær ed þier utskipted nu Landenu med Hlutfalle, þa skulud þier afskilia eitt Upphafningar-Offur af Landenu, þad sem DRottne skal helgad vera, Fimm og Tuttugu Þusunder (Mæleskopt) ad Leingd, og Tiju Þusunder ad Breidd.

2. Sa Floturenn skal helgadur vera, so langt sem hann nær. Og þar ut af skulu Fimm Hundrud (Mæleskopt) koma til Helgedoomsins ferkantad, og þar til eitt frioalslegt Rum, allt um kring, Fimmtijger Alna.

3. Og a þeim sama Flotnum, sem er Fimm og Tuttugu Þusunder Mæleskopt ad Leingd, og Tiju Þusunder breidur, þa skal Helgedoomurenn standa, og þad hid Allra-Heilagasta.

4. Enn þad epter verdur af þvi Heilaga Landenu skal heyra Kienne-Monnunum til, sem þiona j Helgedoomenum, og ganga fyrer DRottne til ad þiona honum, so ad þeir hafe Rum til Husanna, og þad skal eirnenn Heilagt vera.

5. Enn þeir Levitarner, sem þiona fyrer Husenu, skulu eirnenn hafa Fimm og Tuttugu Þusunder Mæleskopt ad Leingd, og Tiju Þusunder ad Breidd, j sitt Hlutskipte til Tuttugu Herbergia.

6. Og til Stadarins skulud þier og eirnenn loata eirn Flotenn fyrer allt Jsraels Hus, Fimm Þusunder Mæleskopt a Breidd, og Fimm og Tuttugu Þusunder a Leingd, næst þeim Flotnum sem ad-skildur er til Helgedomsins.

7. Þier skulud eirnenn giefa Hofdingianum eitt Ploats a bcadar Sijdur, a millum Kienne-Manna Flotsins, og a millum Stadar-Flotsins, j moote Vestrenu, og j moot Austrenu, og hann skal jafnlangur moot Austrenu og Vestrenu.

8. Þad skal vera hans Eignar-Skipte j Jsrael, so ad Mijner Hofdingiar skule ecke taka frammveigis þad Mijnu Folke til kiemur, helldur skulu þeir loata Jsraels Folk bijhallda Landenu til sinna Kinkvijsla.

II. 9. Þvi so seger DROTTinn DROTtinn, Þier Jsraels Hofdingiar hafed giort þad nogu leinge! Loated af Ofergange og Ofbellde, og giored hvad riett og gott er, og loated af þvi ad ut drijfa Mitt Folk, seger DRottinn DROttinn!

10. Þier skulud hafa riettar Voger, og riett Mæle-Kierolld, og riettann Mæler.

11. (a) Epha og Bath skulu jafnar vera, so ad eirn Bath skal hallda einn Tijunda Part af einum Homer, og Epha eirn Tijunda Part og so

so af Homer, Hviad hvortveggia skal þad mælast epter einum Homer.

(a) Epha Er Korn Mæler. Bath Er Mæler Vijns og Vidsmiørs.

12. Eirn (b) Siclus skal hafa Tiju Gera, og ein Mina giører Tuttugu Siclos, Fimm og Tuttugu Siclos, og Fimmtan Siclos.

(b) (Siclus) Ein Mina helldur hier Sextiju Siclos, þvi skal leggia þessa Tølu saman, og einn Siclus helldur Tvær Drachmas, þad er, Fiordungur Eyrers Silfurs, edur Ort af einum Joachims-Dal.

III. 13. Þetta skal nu vera Upphafningar-Offred, sem þier skulud upphefia, sem er hinn Siøtte Partur af einum Epha, af einum Homer Hveitis, og eirn Siøttungurenn af einum Epha, af einum Homer Byggs.

14. Og þier skulud giefa eirn Bath af Oleum, sem er sa hinn Tijunde Bath af einum Chor, og hinn Tijunda Part af einum Homer, Hviad Tiju Bath giøra eirn Homer.

15. Og eitt Lamb af Tveim Hundrudum Sauda, af þeirre Hiørdenne sem er j Israels Gras-Haga, til Mat-Offurs, Brenne-Offurs, og Packlætis-Offurs, til eirnrar Forlijkunar fyrer þa, seger DROTTinn DROTTinn.

16. Allt Folked j Landenu skal færa soddann Upphafningar-Offur, til Høfdingians j Israel.

17. Og Høfdingenn skal offra sijnu Brenne-Offre, og Matar-Offre, og Drickiar-Offre, a Hoatijdum, og Tunglkomum, og Sabbaths-Døgum, og a øllum Hoatijdum Hussens Israels. Þar til med skal hann giøra Synda-Offur, og Matar-Offur, og Brenne-Offur, og Packlætis-Offur, til eirnrar Forlijkunar fyrer Israels Hus.

18. So seger DROTTinn DROttinn, A þeim Firsta Deigenum þess Firsta Moanadarins, skallt þu taka eirn ungann Uxa, sem er Lastalaus, og hreinsa Helgedoomenn.

19. Og Presturenn skal taka af Synda-Offursins Blode, og dreifa þvi a Stoolpana j Husenu, og a þau fiogur Hornenn a Troppunum Alltaresins, med Stoolpanum Portsins þess innsta Forgardsins.

20. Lijka so skalltu og eirnenn giøra a þeim Siøunda Deigenum j Moanudenum, ef ad nockur kann ad hafa villt fared, eda forsied sig, ad þier hreinsed Hused.

21. A þeim Fiortanda Deige hins Firsta Moanadar, þa skulud þier hallda Paskana, og j Siø Daga Heilagt hallda, og eta O-syrt Braud.

22. Og a þeim sama Deigenum skal Høfdingenn offra fyrer sig, og fyrer allt Folked j Landenu, einum Uxa, til Synda-Offurs.

23. Enn a þeim Siø Hoatijdes-Døgum skal hann hvorn Dag giøra DROTTne eitt Brenne-Offur, sem eru Siø Uxar, og Siø Hrutar, sem Lastalauser eru, og eirn Kiarn-Hafur til Synda-Offursins.

24. Enn til Mat-Offursins skal hann offra einum Epha, til eins Uxa, og einum Epha, til eins Hrutsins, og eitt Hin med Oleum, til hvørs Epha.

25. A þeim Fimmtanda Deigenum hins Siøunda Moanadar skal hann Heilagt hallda, j Siø Daga, hvørn epter annann, eins so sem þa adra Siø Dagana, og hallda þa eins lijka so med Synda-Offre, Brenne-Offre, Matar-Offre, og Oleum.

# XLVI. Capitule.

Ezechiel seger (I) fraa Margskonar-Offrum; Og (II) Hvar þau ætte ad offrast.

I. So seger DROttinn DROttinn, Þad Ported, j þeim Innsta Forgardenum, sem er moot Austrenu, skal vera til luckt þa Sex Virka-Daga, enn a Sabbaths-Døgunum, og a Tunglkomunum skal þad upplukast.

2. Og Høfdingenn skal ganga utann til under Lopt-Hused a Portenu, og standa vid Stoolpana j Portenu. Og Prestarner skulu offra hans Brenne-Offre, og Packlætis-Offre, enn hann skal til-

tilbidia a Proskellde Portsins, og ganga sijdann ut aptur, enn Ported skal oped vera til Kvollds.

3. Og Folked j Landenu skal eins lijka so tilbidia fyrer DROTTne, j þess sama Ports Dyrum, a Sabbaths-Dogunum, og Tungl-komu-Hoatijdum.

4. Pad Brenne-Offred sem Hofdingenn skal offra fyrer DROTTne, a Sabbaths-Deigenum, skal vera Sex Lomb, sem eru Lastalaus, og eirn Hrutur Lastalaus.

5. Og eitt Epha Matar-Offurs, til eins Hrutsins, til Matar-Offursins, Enn til Lambanna, so miked sem hans Hond giefur, til Matar-Offursins, og eitt Hin med Oleum, til eins Epha.

6. Enn a Tungl-komunum skal hann offra einum ungum Uxa, sem er Lastalaus, og sex Lombum, og einum Hrut, og so Lastalausum.

7. Og einu Epha, til Uxans, og einu Epha, til Hrutsins, til Mat-Offursins, enn til Lambanna so miked sem hann gaupnar yfer, og einu Hin Oleum, til eins Epha.

8. Og nær ed Hofdingenn geingur jnn þangad, þa skal hann ganga j giegnum Lopt-Hused Portsins, og ganga so þann sama Veg ut aptur.

9. Enn Folked j Landenu, sem kiemur fyrer DROttinn, a þeim stærstu Hoatijdum, ad tilbidia, og geingur jnn ad Portenu j mote Nordrenu, þa skal þad ganga ut aptur um þad Ported moot Sudrenu. Og hvorier sem jnn ganga um þad Ported mot Sudrenu, þa skulu þeir utganga um þad Ported mot Nordrenu. Og þeir skulu ecke ut aptur ganga um þad sama Ported sem þeir eru jnngeingner, helldur skulu þeir ganga riett framm, og so ut.

10. Enn Hofdingenn skal ganga bæde jnn og ut med þeim.

11. Enn a Helgum Dogunum, og þeim stærstu Hoatijdum, skal offrast til Matar-Offursins, til eins Uxa, eitt Epha, og til Hrutsins, eitt Epha, og til Lambanna, epter þvi sem hans Hond megnar, og eitt Hin Oleum, til eins Epha.

12. Enn nær ed Hofdingenn vill giora DROttne eitt viliuglegt Brenne-Offur, edur Packlætis-Offur, so skal upplukast fyrer honum Ported mot Austrenu, ad hann meige so offra sijnu Brenne-Offre, og Packlætis-Offre, lijka sem hann er annars vanur ad offra a Sabbaths-Dogum, og nær ed hann geingur ut aptur, þa skal Ported lokast aptur epter honum.

13. Og daglegana skal hann giora DRottne eitt Brenne-Offur, sem er, eitt Aars-gamallt Lamb Lastalaust, þvi skal hann offra Hvorn Morgun.

14. Og hann skal Hvorn Morgun leggia þar uppa eirn Siettung af einu Epha, til Matar-Offurs, og eirn Pridiung af einu Hin Oleum, til ad vokva med Hveite-Mioled, DROTTne til eins Matar-Offurs, þad skal vera eirn Æfennlegur Riettur, um þad hid Daglega Offred.

15. Og so skulu þeir Hvorn Morgun offra Lambenu, med Matar-Offrenu, og Oleum, til eins Daglegs Brenne-Offurs.

16. So seger DRottinn DRottinn, Nær eirn Hofdinge giefur einhvorium af sijnum Sonum eina Goafu, af sinne Arfleifd, þeirre hinne somu skulu hans Syner bijhallda, og ad Erfdum eignast.

17. Enn giefe hann nockrum af sijnum Sveinum eitthvad af sinne Arfleifd, þad skulu þeir eignast til Frelsunar-Aarsins, og þa skal þad falla til Hofdingians aptur, þviad hans Arfleifd skal alleinasta erfast af hans Sonum.

18. Og Hofdingenn skal ecke neitt hafa fra Folkenu, af þeirra Arfleifd, og ecke ad driifa þa af þeirra eigenn Gotse. Helldur skal hann lata sitt eiged Gots sijnum Bornum sialfs til Erfdar falla, so þad eingenn af Mijnu Folke skule j burt drijfast af sinne Eign.

II. 19. Og Hann leidde mig under Inngangenn hioa Hlidenne a Portenu, j mot Nordrenu, til Helgedomsins Herbergis, sem Kiennemonnonum til heyrde, og sioa þu! ad þar var eitt Rum j eirure Hyrningunne, mot Vestrenu.

20. Og hann sagde til mijn, Þetta er sa Stadurenn, þar ed Prestarner skulu siooa Saka-Offred, og Synda-Offrid, og baka Matar-Offred, so ad þeir þurfe ecke ad bera þad ut um hinn Ytsta Forgardenn, til ad helga Folked.

21. Þar epter-a leidde hann mig ut til hins Ytsta Forgardsins, og bad mig ad ganga j þau Fiogur Hornenn a Forgardenum, Og sioa þu! ad þar voru, j hvorium af þeim Fiorum Hornum, adrer sinoa Forgardar, til ad veyfa Reykelsenu j.

22. Fiorutijge Alna langer, og Þriatijgu Alna breider, aller Fiorer med einum Skante.

23. Og þar gieck eirn liitell Mur utan um kring hvorn eirn af þeim Fioorum, þar voru og giordar Ellds-Stoor, nedan til upp vid Murenn.

24. Og hann sagde til mijn, Þetta er þad Mat-Giordar-Hused, j hvoriu Þienararner Hussens skulu siooda þad sem Folked offrar.

## XLVII. Capitule.

Ezechiel talar (I) um Vatned utan fyrer þvi Nya Mustere; og (II) um Endemerkur þess Heilaga Lands.

I. Og Hann leidde mig jnn aptur ad Dyrum Musteresins, Og sioa þu! ad þar flaut eitt Vatn, ut under Þroskelldenum Musteresins, moot Austrenu, þviad Dyrnar Musteresins horfdu og eirnenn a mote Austrenu. Og Vatned rann a þa Hægre Hlidena hioa Musterenu, hioa Alltarenu, mot Sudrenu.

2. Og Hann leidde mig ut ad Portenu mot Nordrenu, j fra þvi Ytsta Portenu mot Austrenu, og sioa þu! ad þar spratt Vatn ut af hinne Hægre Hlidenne.

3. Og Madurenn gieck ut mote Austrenu, og hafde eirn Mæle-Streing j Hendenne, og hann mællte Þusund Alner, og leidde mig yfer Vatned, þangad til ad þad tok mier j Okla.

4. Og hann mællte enn einu Sinne Þusund Alner, og leidde mig j giegnum Vatned, þangad til þad tok mier j Knie. Og hann mællte enn einu sinne Þusund Alner, og liet mig ganga j giegnum þad, þar til ad þad tok mier uppa Lendar.

5. Þa mællte hann enn Þusund Alner, og þa vard þad so diupt, ad eg grynnte ecke leingur, þviad Vatned var so diupt, ad þar moatte synda yfer-um, og eg kunne eige ad nioa til Botnsins.

6. Og hann sagde til mijn, Þu Mannsins Son! Þetta hefur þu nu sied. Og hann leidde mig aptur til Baka, til Lækiar-Backans.

7. Og sioa þu! ad þar stodu nærsta morg Trie hioa Strondenne, beggia meigenn.

8. Og hann sagde til mijn, Þad Vatned sem rennur ut hiedann, mote Austrenu, þad skal renna j giegnum Sliettlended, ut j Sioafar-Hafed, og j fra þvi eina Sioafar-Hafenu j þad annad. Og nær ed þad kiemur ut j Hafed, þa skal þad sama Vatn vera Heilsusamlegt.

9. Jea, allt þad sem þar lifer j, og hrærer sig, þangad sem ed þesser Vatns-Straumarner þeir koma, þad skal lifa, og skal hafa miog marga Fiska, og aller skulu þeir lifa, og heilsusamleger verda, hvar ed þesse Vatns-Straumur hann kiemur.

10. Og Fiskararner skulu standa vid þann enn sama, j fra Engeddi og jnn til EnEglaim, þa skulu þeir utbreida Fiska-Netenn. Þviad þar skulu vera miog marger Fiskar, lijka sem j þvi mikla Sioafar-Hafenu.

11. Enn Sijkenn, og Pytterner þar hioa, þeir

þeir munu ecke heilnæmer vera, helldur vera Sallter.

12. Og hia Strondenne, vid sama Straum beggiameigenn, skulu vaxa allra handa Friosamleg Alldin=Trie, og þeirra Lauf=Blod skulu ecke visna, og þeirra Alldin skulu ecke rotna, og hvørn Mánud skulu þau bera nyann Avøxt, þviad þeirra Vatn rennur ut af Helgedomenum, þeirra Avøxtur skal duga til Matar, og þeirra Lauf=Blod til Lækninga.

II. 13. So seger DROttinn DROttinn, Þesse eru þau Landamerkenn, epter hvørium þier skulud utskipta Landenu, a millum þeirra Tolf Kinkvijslanna Israels, þviad Tvo Hlutskiptenn heyra Josephs Ættlegg til.

14. Og þeir skulu skipta þvi jafnt ut, einum sem ødrum, þviad Eg hefe upphafed Mijna Hond, so þad Eg vil giefa ydar Forfedrum, og so ydur, Landed til Arfleifdar.

15. Þesse eru nu Endemørkenn Landsins mote Nordrenu, j fra þvi mikla Siǫfar=Hafenu, j fra Hethlon, jnn til Zedad, sem er,

16. Hemath, Berotha, Sibraim, sem nær til samans vid Damasco, og Hemath, og Hazar Tichon, sem liggur vid Haveran.

17. Þad skulu vera Landamerkenn fra Hafenu jnn til HazarEnon, og Damascus og Hemath skal vera Lands=Endinn mote Nordrenu.

18. Enn Landamerkenn mot Austrenu skulud þier mæla millum Haveran og Damasco, og millum Gilead, og millum Landsins Israels vid Jordan, jnn til Siǫfar=Hafsins mote Austrenu. Þad skulu vera Landamerkenn mote Austrenu.

19. Enn Landamerkenn mote Sudrenu, eru j fra Thamar, jnn til Prætu=Vatnsens j Cades, og mote Vatnsfallenu, til hins mikla Hafsins. Þad skulu vera Landamerkenn mote Sudrenu.

20. Og Landamerkenn mote Vestrenu eru j fra þvi enu mikla Hafenu, beinleidis jnn til Hemath. Þad skulu vera Landamerkenn mote Vestrenu.

21. So skulud þier nu utskipta Landenu a medal Kinkvijslanna Israels.

22. Og nær ed þier kasted Hlutfallenu, til ad utskipta Landenu a medal ydar, so skulud þier hallda þa hina Framande sem bua hia ydur, og ala þar Born hia ydur, lijka sem Innbyggiarana Landsins a medal Israels Barna, og þeir skulu eirnenn hafa sijna Hlutdeilld j Landenu, hvør sem eirn a medal þess Slektis sem hann byr hia, seger DROTTinn DROTTinn.

## XLVIII. Capitule.

*Ezechiel seger fra Hlutfalle þeirra Tolf Kinkvijsla Israels, þa þvi Heilaga Lande være Skipt.*

Þesse eru Nøfnenn Kinkvijslanna j fra Nordur=ǽttenne, fra Hethlon, mote Hemath, og HazarEnon, og fra Damasco moot Hemath.

2. Þad skal Dan hafa j sitt Hlutskipte, j fra Austrenu, jnn til Vestursins.

3. Asser skal hafa j sitt Hlutskipte, hid nærsta hia Dan, j fra Austrenu, til Vestursins.

4. Nephthali skal hafa sitt Hlutskipte nærst hia Asser, j fra Austrenu, jnn til Vestursins.

5. Manasse skal hafa sitt Hlutskipte hia Nephthali, j fra Austrenu, jnn til Vestursins.

6. Ephraim skal hafa sitt Hlutskipte nærst hia Manasse, j fra Austrenu, jnn til Vestursins.

7. Ruben skal hafa sitt Hlutskipte nærst hia Ephraim, j fra Austrenu, jnn til Vestursins. Juda skal hafa sitt Hlutskipte nærst hia Ruben, j fra Austrenu, jnn til Vestursins.

8. Enn

8. Enn þier skulud fraskilia eirn Hluta, nærst hia Juda, fra Austrenu, inn til Vestursins, sem vera skal Fimm og Tuttugu Þusunder Mæle-Skopt ad Breidd og Leingd, ein Deilldenn af þvi Hlutskiptenu, sem tekur j fra Austrenu, inn til Vestursins, þar inne skal Helgedomurenn standa.

9. Og þar ut af skulud þier fraskilia DROTTne eina Hlut-Deilld, Fimm og Tuttugu Þusunder Mæleskopt ad Leingd, og Tiju Þusunder Mæleskopt ad Breidd.

10. Og su Heilaga Hlut-Deilld skal heyra Prestunum til, sem er Fimm og Tuttugu Þusund Mæleskopt ad Leingd, moote Nordrenu, og moote Sudrenu, og Tiju Þusunder ad Breidd, moote Austrenu og Vestrenu. Og Helgedoomurenn DROttins skal standa þar midt innann j.

11. Pad skal helgad vera til Prestanna, sem eru af Zadochs Bornum, hvorier ad hielldu Mijnar Sidveniur, og eru ei af-faller med Israels Bornum, so sem þad Levitarner eru af-faller.

12. Og þesse fraskilda Hlut-Deilldenn skal vera þeirra Eign af Landenu, j hvoriu þad hid Allra-Helgasta er, hia Levitanna Landamerkium.

13. Enn Levitarner skulu hafa j hia Prestanna Landamerkium, Fimm og Tuttugu Þusunder Mæleskopt ad Leingd, og Tiju Þusunder ad Breidd, lijka sem hiner adrer. Þviad oll Leingdenn skal hafa Fimm og Tuttugu Þusunder Mæleskopt, og Breiddenn Tiju Þusund Mæleskopt.

14. Og þeir skulu ei neitt selia þar af, edur i burt foa, so ad ecke neitt skule j burt fargast, af hinum Firsta Landsins Avexte, þviad þad er DROttne Helgad.

15. Enn þau Fimm Þusund Mæleskopt, sem epter eru ordenn a Breiddena, a moots vid þau Fimm og Tuttugu Þusund Mæleskopt a Leingdena, þau skulu til Stadarins Ohelg vera, til ad bua þar inne, og so til Forstadanna, og Stadurenn skal standa þar midt innann j.

16. Og þad skal vera hans Skamtur, Fiorar Þusunder og Fimm Hundrud Mæleskopt, moot Nordrenu og Sudrenu. J sama Maata a moote Austrenu og Vestrenu, eirnenn Fioorar Þusunder, og Fimm Hundrud.

17. Enn Forstadurenn skal hafa Tvo Hundrud og Fimmtijge Mæleskopt moote Nordrenu, og moote Sudrenu, so eirnenn lijka Tvo Hundrud og Fimmtijgu Mæleskopt j moote Austrenu, og Vestrenu.

18. Enn þad epter er orded, af þeirre somu Leingdenne, hia þvi hinu fraskilda og helgada, sem eru Tiju Þusund Mæleskopt moote Austrenu, og moote Vestrenu, þad skal heyra til þeirra Upphelldis sem þiona j Stadnum.

19. Og þeir sem arfida eiga j Stadnum skulu vera af ollu Israels Slekte.

20. So ad su giorvoll Afdeilingenn sem hefur Fimm og Tuttugu Þusund Mæleskopt, og er ferkontud, hun skal vera ein Heilog Afdeiling, til Stadarens Eigenndoms.

21. Enn hvad sem þar er enn nu epter beggia meigenn, hia þeirre adskildre Heilagre Hlut-Deilldenne, og hia Stadarins Hlut-Deilld, sem er Fimm og Tuttugu Þusunder Mæleskopt moot Austrenu, og moote Vestrenu, þad skal allt saman vera Hofdingians. Enn su adskilda Heilaga Hlut-Deilldenn, og Musteresins Helgedoomur, skal vera þar midt innann j.

22. Enn hvad sem þar a mille liggur, a millum Hlut-Skiptesins Levitanna, og a millum Stadarins Hlut-Skiptis, og a millum Landamerkianna Juda, og Ben-Jamins Landamerkia, þad skal vera Hofdingians.

23. Þar epter skulu vera hinar adrar Kinkvijslernar, Ben-Jamin skal hafa sitt Hlut-Skipte fra Austrenu, inn til Vestursins.

24. Enn Simeon skal hafa sitt Hlut-Skipte nærst Ben-Jamins Landamerkium, fra Austrenu jnn til Vestursins.

25. Jsaschar skal hafa sitt Hlut-Skipte hia Simeons Landamerkium, fra Austrenu jnn til Vestursins.

26. Sabulon skal hafa sitt Hlut-Skipte hia Jsaschars Landamerkium, fra Austrenu jnn til Vestursins.

27. Gad skal hafa sitt Hlut-Skipte hia Sabulons Landamerkium, fra Austrenu jnn til Vestursins.

28. Enn nærst Gad er Landamerked moot Sudrenu, fra Thamar, jnn til Þrætu-Vatnsins j Cades, og j moote Vatns-Fallenu, hia þvi mikla Hafenu.

29. So skal Landed utskiptast til Arfleifdar, a medal Jsraels Kinkvijsla, og þad skal vera þeirra Arfleifd, seger DROTTinn DROttinn.

30. Og Stadurenn skal vera so vijdur, Fiorar Þusunder, og Fimm Hundrud Mæleskopt moote Nordrenu.

31. Og Portinn Stadarins skulu kallast epter Nofnum Jsraels Kinkvijsla, Þriu Portenn a moot Nordrenu, hid Firsta Ported er Rubens, hid Annad Juda, hid Þridia Levi.

32. Og so j moote Austrenu Fiorar Þusunder, og Fimm Hundrud Mæleskopt, og Þriu Portenn, sem er hid Firsta Ported Josephs, hid Annad Ben-Jamins, hid Þridia Dans.

33. Moot Sudrenu eirnenn lijka Fiorar Þusunder og Fimm Hundrud Mæleskopt, og Þriu Portenn, hid Firsta Port Simeons, hid Annad Jsaschars, hid Þridia Sabulons.

34. Og lijka so moote Vestrenu Fiorar Þusunder, og Fimm Hundrud Mæleskopt, og Þriu Portenn, þad Eina Ported Gads, hid Annad Assers, hid Þridia Nephthali.

35. So skal þad hafa atian Þusunder Mæle-Skopt allt um kring, og þa skal Stadurenn kallast, Hier er DROTTenn.

Ending Prophetans Ezechielis.



# Formaale yfer Prophetann Daniel.

Uppa þad, ad þeir Olærdu, og þeir sem Sagna-Bækurnar ecke vita, nie kunna siaaifer ad lesa, mætti med nockru moote skilia þessa Book S. Danielis, þa vil eg, med þessum Formaala, eina litla Undervijsan framm setia.

J Firstu, Hvornenn Daniel er til Babylon komenn, nockrum aarum fyrer Foreydslu Jerusalems Borgar, a Dogum Joachims, hvorn Nabuchodonosor fangade og fiotrade, og villde hafa flutt hann til Babylon, enn vard þo þess Sinnis, ad hann liet hann epter verda, Enn flutte a burt med sier hina bestu Menn (a medal hvorra Daniel var og so Kierenn ur Musterenn. Um þetta allt finnst skrifad j Annare Book Konganna 24 Cap. Og j Chronicu Bookenne 37. Cap.

J hinum Firsta Cap. verdur hier j Firstu framm sett eitt merkelegt Dæme, um Lifnad og Frammferde Danielis, hvorsu Heilaglega og Gudrækelega hann hefur lifad, og hvad stoduga og sterka Tru til Guds ad hann haft hefur, a medal slijkra Ogudlegra Heidingia, jafnframt þeim morgu hrædelegum Hneixlonum, sem hann hefur i Babylon hlotid daglega ad sia og heyra. Og hefur þo stadfastur staded og Stoduglega, og allt þetta sigrad og yferunned j sijnu Hiarta. Þar fyrer epter filger jafn snart, Hvorsu haaleitar Gaafur GUD gaf honum, Firsi Andlega, prydande hann med Vijsdoome og Skilninge framm yfer alla Menn, Þar nærst Lijkamlega, setiande hann til hinna mestu Metorda, og verkade fyrer hann mikel Daadsemdar Verk og Stoormerke, hvar med hann aavijsar ollum oss, hvornenn Hann elske, og hvad mikels hann virde þa alla sem hann otlast, og honum treysta, Leider oss og lockar

so med slijku Dæme, hid Godmannlegasta, til Guds Otta og Truarennar.

J hinum Ødrum Cap. uppbyrjast Vegsemdar Tignenn Danielis, hvad ed skiede af Kongsins Draume, Hvørn Daniel, af Guddoomlegre Openberan, finnur aptur, og utþyder hann. Fyrer þetta Tilefne verdur hann eirn Høfdingi yfer øllu Babylons Rijki, Eirn Biskup og Høfuds-Madur yfer øllum Vijsenda Mønnum og Spekingum, Hvad skied er til Huggunar Gydinga-Lyd, so ad þeir i sinne Utlegd, ecke skylldu falla j Ørvinlan nie Oþolinmædi, so sem hefdi GUd kastad þeim fra sier, og sijn Fyrerheit ut af Christo j burt tekid. Þar fyrer lætur GUd eirn Hertekinn Gyding stiorna so megtugu Kongs Rijki, Og ei veittist sa Heidur neinum Babyloniskum Manne, Og þad er a ad sia, ad hann hafe vered til þess eins Fangabur og j burt fluttur, ad hann skyllde vera so megtugur Herra og Høfdinge, jafnvel yfer þeim sem hann hofdu j burt fært og hertekid. So daadsamliga breytur GUd vid sijna Utvalda, og veiter þeim miklu meira enn nockur kunne ad oska!

Enn sa Draumur ut af Lijknesskenu er j Textanum af Daniele sialfum lioslega utþyddur, um þau Fiogur Einvallds Kongs Rijkenn, af hvørium hid Firsta var þeirra Assyriorum og Babyloniorum. Þad Annad þeirra Medorum og Serkia, þad Þridia Alexandri hins Mikla, og Grickia, þad Fiorda er Romveria Rijke.

J þessare Utþydingu og Meiningu er allur Heimurenn samhlioda, Giørningarner og Sagna-Bækurnar sanna þetta nooglega, Enn hann talar mest og leingst um þad Romverska Rijked, þar fyrer skulum vier vandlega tilhlyda.

J Nidurlagenu, þa ed Jaarnleggerner taka ad skiptast j sundur j Tærnar þar seger hann fyrer Þria Hlute, ut af þvi Romverska Rijkenu: Hinn Firste er sa, ad Tærnar eru adskildar, edur sundurlausar, enn hafa þo þeirra Uppruna af Jaarn Fætenum, so sem a Lijkama Mannsins eru sundurlausar Tærnar, enn eru þo af Fætenum vaxnar, og heyra til Fætenum. So vard þad Romverska Rijked j sundurlaust, þa Hispania, Frackland, og Eingland kom fra þvi, og fleyre ønnur Konga Rijke, Samt er þad hier þo ut af vaxed, og so sem ønnur Plantan, nidur plantad, og flutt (so sem þeir segia) translatum j fra þeim Grisku til þeirrar Þysku Þiodar, so ad þad hefur enn nu Art og Naatturu Jaarnsins, þvi ad þad hefur enn nu sijna Rijkis Stiornarmenn og Raad-Herra, Logmaal og Laga-Riett, so sem j fyrre Tijdenne. Þar fyrer seger hann hier, þo ad þad sie sundurlaust Rijke, þa hefur þad þo Root, Plantan edur Lega Jaarnsins.

Þad Annad er þetta, ad slijkar adskilianlegar Tær sieu olijkar, sumar af Jaarne, sumar af Leire, þad utþydir hann sialfur, ad þad mune vera eitt sundurlaust Rijke, stundum stirkvara, stundum veikara. Þetta hefur so skied, Þviad þad Romverska Rijked hefur optsinnis haft aagiæta Keisara, sem var Karlamagnus og þeir Þrijr Ottones, og þeirra Lijkar, sem O-yfervinnanlegir voru, Þar a mooti hefur þad og stundum veika og o-giæfusama Keisara hast, hvørier optsinnis voru Yfirunner og Sigrader.

Þetta allt saman er þvi so sagt, ad vier skulum vita, ad þetta Romverska Rijkid skal vera þad Sijdarsta, og eingenn mun faa þad forendt og nidurbrotid, utann Christur sialfur, med sijnu Rijki, Þar fyrer, þo ad so sie, ad marger Kongar hafi sig upp reist j moote þeim Þydverska Keisaradoominum, og þo ad Tyrkenn beriest Odliga honum j mooti, og hafi (kann vera) nockrar Orustur unnid, edur kunni ad vinna, þa skal hann þo samt þessa Jaarn-Root og Plantan ecke yfervinna nie uppræta, Þetta Rijki mun vara allt til hins Sijdarsta Dags, hvørsu veikt sem þad er. Þvi Daniel lygur eige, og Rauninn hefur, allt hingad til, hier um Vitni giefed, bæde um þa Romversku Pava, og so ønnur Kongarijkinn.

Þad Þridia er þetta, Ad þessar sundurlausar o-jafnar Tær, sie þvilijkast sem samblandadar, og so sem hvør vid adra samteingd. Þad utþyder Daniel sialfur so, Ad þetta Rijke muni verda so veikt Rijke, ad þad mune med Vinaattugiordum og Mægdum, hier og þar, j hiaa hinum og ødrum Konungum, ad sier hnyssa, og sier Stirks leita, enn þad mun þo ecke hiaalpa, nie tryggelegt verda. Og mun so alleinasta, fyrer Guds Fyrerhyggiu hafa Stirk og Sigur, þegar aaliggur.

Enn þad Fialled, af hvøriu Steirnenn vard afslitenn aan Mannlegra Handa, þad utþyda sumer, af þeirre Heilogu Jomfru Mariu, af hvørre Christur er fæddur, fyrer utan Manns Tilverkan, hvør Utþyding ad ecke er O-Christeleg, Enn þetta Fiall maa og eirnenn vel merkia Giorvallt Gydinga Rijke og Foolk, af hvørium Christur er komenn, hvørra Holld og Blood hann er, enn er nu fra þeim j burt slitenn, og komenn a medal Heidenna Þioda, og er so ordenn, og mun blijfa, eirn DROTTinn og Herra alls Heimsins, um øll þesse Fiogur Kongarijke.

J Hinum Þridia Cap. skrifar hann enn nu annad hardla stort Daadsemdar-Verk Truarennar, Sem er, ad þeir Þrijr Menn frelsast af Brennande Ellds-Ofne, hvar af Kongurenn kiemur til slijkrar Guds Vidurkienningar, ad hann med sijnu Rijke, prijsar og vegsamar Gud um allt sitt Kongs-Rijke. Hvad og so eirnenn skied er, þeim Herteknu Gydingum til Huggunar, hvørier aasamt med þeirra Gude, olldungis forsmaader og Fyrerlitner voru j Babylon, a medal

Vijsin-

Vijkinganna og Skurgodanna. Enn hier verdur þeirra Gud haaleitlega prijsadur, framm yfer alla adra Gude, So ad þeir skule þvi stadfastlega trua, ad hann bæde giete, og so vilie, hiaalpa þeim, a sijnum Tijma, Enn þess a mille þa skulu þeir hallda og hugga sig vid slijk hans Daadsemdar Undur og Stoormerke.

I Hinum Fiorda Cap: stendur eitt merkelegt Epterdæme Gudlegrar Reide, j giegn þeim grimmu Vallds-Stiornar-Mønnum og Vijkingum. Þviad þar verdur sa hinn Mikle og Maattuge Kongur sviptur sijnum Skilninge, og verdur so Vitlaus og Olmur, ad Menn verda ad binda hann sem annann Olmann Hund, med Vidium, og sleppa hønum ut, þviad Menn gaatu hann ei hiaa Mønnum lided. Nu þyker oss þetta lijtels verdt, a medan þad stendur j Bokenne. Enn hefdum vier vered þar j hiaa, og sied þar uppa, þa hefdum vier sied eirn Hrædelegann og Oguarsamlegann Guds Dom, So ad sierhvør Madur hann hefde maatt af Hiarta aumka sig yfer alla Vallds-Menn og Vijkinga, ad so þungur Hefndardomur hanger yfer þeim, þar sem þeir misbreyta sijnu Magtarvellde. Slijkt er og eirnenn j þann Tijma skied til Huggunar þeim utlægu Herteknu Gydingum, so og nu, og jafnam hier epter, Øllum þeim til Huggunar sem Oriett lijda, og af þeim Raangláatu verda offokter, So ad þeir siae þad, ad Gud giete og vilie hefna vor a vorum Ovinum, þyngra og frekara enn vier oskum. So sem sa 58. Psalm seger. Sa hinn Rietláate mun med Glede siaa Hefndena, og bada Fætur sijnar j Blode þess Rangláata. Þar fyrer eigum vier slijka Vijkinga ei ad eins med Þolennmæde ad umbera, helldur og so eirnenn aumka oss yfer þa, vegna þess Hefndardoms sem þeim yfer Høfde hanger, og bidia Gud af Hiarta fyrer þeim, lijka sem sa Gode Daniel hann giører, hann angrar þad, ad yfer Kongenn (hvør ed hann hiellt þo Hertekenn, og hans Fødurland hafde foreydt) skyllde slijk Hørmung ganga, og oskar hana helldur hans Ovinum.

Hier aptur a mote, er þetta øllum goodum Herrum og Høfdingium ein Huggunarsamleg og føgur Lijking, ad Gud DROTTinn lijker þennann Ogudlega Kong vid eitt Fagurt Trie, hvørt ed fæder og nærer øll Kvikende, og hlijfer þeim under sijnum Greinum og sijnum Skugga. Med hvørre Fyrermindan Gud hann aavijsar, ad hann fyrer Yfervallds-Stiettena giefe Frid og Spekt, Hlijfd og Hiaalp, Biørg og Næring, og øllu þessu stundlegu Lijfe vid Magt hallde. Og ad hønum bockneßi þad miøg vel, þegar eirn Høfdinge edur Vallds-Madur stendur Trulega j þessare sinne Stiett, þviad hann kallar þad fagra Avøxtu, fagrar Greiner, føgur Lauf-Blød, þad er ad skilia, þad eru Kostuleg, Dyrmæt Good Verk. Med þvi þa, ad Gude eru þau so þægeleg, ad hann so Prydelega utmaalar, prijsar og pryder þau, þa skylldu Herrarner med Lyst og Elsku frammfylgia sijnu Embætte, hvørsu Erfidissamt og torvellt sem þad verda vill. So eigum vier og ecke ad akta Hreckvijse Vallds-Mannanna, helldur hugsa Hvørsu kostulegt og nytsamlegt Embætte þeir haf a af Gude, oss til Gagns og gooda sett og skickad.

I Fimmta Cap. kiemur framm eitt annad Epterdæme j giegn þeim Raanglætis Vijkingum. Þviad þad hid fyrra Epterdæmed er nockud so lijdanligt, af þvi sa Kongur leid Hyrtingena, og snerest til Guds med sannre Idran, Lijtelæte og Vidurkienning, so ad hann er efunarlaust, af einum Vijkinge, ordinn eirn Sannheilagur Hofdinge. Enn hier verdur sa forherdte Idrunarlause Vijkingur, verande Athugalaus og galldur j sinne Hreckvijse, refstur Vægdarlaust, so ad hann misser j einu Aund og Lijkama, Lønd og Lydi, hvad efunarlaust øllum þvilijkum Ranglætis Vijkingum er til Skielfingar skrifad.

I Siotta Cap. er eitt lystelegt og fagurt Epterdæme eins gods aagiæts Kongs, hvør ed elskade Daniel, þess hlaut Daniel ad giallda af hinum ødrum Stoorbockum j Kongsins Garde, þeir syna hønum eitt Hoofgards-Sticke, so ad hann verdur umsijder kastadur j Leona Grøfena. Hier hafa þeir Aumu Herteknu Gydingar enn ad nyu hriggver ordeд. Enn Gud audsyner hier enn sijna Naalægd, hid huggunarsamlegasta, og snyr um Hiolenu so fijnlega, ad Danielis Oviner urdu sialfer upp ad eta þad þeir høfdu hønum Maibued, so sem þad segest j hinum 7. Psalme. Sia þu! Hann hefur Illt j sinne, hann geingur med Ogiæfuna, enn hann mun fæda Lygena. Hann hefur Grysiuna utgrafed og utfært, og er fallenn j þa Grøf sem hann gierde. Hans Olucka mun koma hønum j Koll, og hans Raanglæte j hans Hvirfel.

So er nu Lijferne Daniels eckert annad enn eirn skiær og klaar Speigell, j hvørium vier siaaum Truarennar Baraattu, og hennar Sigur-vinning, fyrer Guds Naad, j giegn øllum Diøflum og illum Mønnum, so og hennar Avøxtu og Nytsemder, sem hun fyrer Þolenmæde og Krossenn verkar, bæde fyrer Gude og Mønnum.

I Siounda Cap: taka til Þær Sionernar og Spaadomarner ut af Þeim epterkomande Konga-Rijkium, sierdeilis ut af Rijkenu Christi, hvørs Eins vegna Alleina allar þessar Sioner skied hafa. Og er j Firstu merkianda, ad Þau fiøgur Einvallds Konga-Rijkenn, sem hann hier fyrr j ødrum Cap: synde j Þeirre miklu Lijknesku, Þau enu sømu lijtur hann hier ad nyu j annare Mind, einkum Fiøgra Dyra, hellst vegna Þess Fiorda Dyrsins, sem er, Þess Romverska Rijkesins, ut af hvøriu hann seirna meir vill fleyra segia, Þviad under Þvi sama Romverska Rijke, aattu ad skie Þeir allra stærstu Tilburder, sem eru Þesser, Hin-

gad-

gadkomann Christi, Mannkinsins Endurlausn, og Ender Veralldarennar.

So er nu þad Firsta Dyred, Kongs-Rijked j Assyria og Babylon, Þad er Leoninnann, hafande Tvo Arnar-Vængena, Þviad Þetta Rijked var þad ægiæfasta og besta, og (so sem ædur var sagt) eitt Gyllene Rijke hiaa hinum ødrum. Tveir Vænger eru Tveir Hluter Rijkesins, sem er Assyria og Babylon, Og Þvi verdur eitt Manns Hiarta giefed, og Þad stendur a sijnar Fætur, Þviad ecke eitt af hinum Konga-Rijkiunum hefur slijkann Konung haft, sa ed so trædsamlega hafe komest til GUds Vidurkenningar sem þesse, eige helldur hefur neitt Þeirra so marga merkelega Heilaga og hyggna Menn haft j Kongsins Garde, so sem Þetta Kongs-Rijked hafde.

Þad Annad Dyred er Biarn-Dyr, þad er Kongs Rijked j Persia og Media, hvørt ed Babylons-Rijke umturnade, og af Þvi reif þess Vænge. Og þad hefur midt a mille sinna Tanna Þriu Rif-Bein (þad eru Þriaar stoorar og langar Tennur) Þad merker Þriaa hina helstu Kongana, sem er, Cyrus, Darius, og Xerxes, hvørier mikla Hlute giordu, j Þessu Kongs-Rijke, Og ætu miked Kiøt, Þad er, Þeir brutu under sig mørg og megtug Lønd og Þiooder.

Þad Þridia Dyrid er Pardus, med Fiorum Vængium, og Fiorum Høfdum, Þad er Rijki Alexandri Magni, af Grick-Lande, ur hvøriu, þar epter-aa, urdu Fiogur Konga Rijki, so sem vier faaum ad heyra j nærst epterfilgianda Cap:

Þad Fiorda Dyred, sem Jaarn-Tennurnar hefur, Þad merker þad Sijdarsta Rijked, sem er Þad Romverska Rijked, med hvøriu Veralldenn skal eirn Enda hafa, Þvi talar Daniel hier margt um þann Sijdarsta Doom, og um Rijke Þeirra Heiløgu, hvørt ed koma mun epter Þetta Kongs-Rijke.

Enn hann utmaalar Þad Romverska Rijke med slijkum Hætte, ad Þad skule j Firstu sundurskiptast; Tiju Konga-Rijke, Þad eru þau Tiju Hornenn, sem er, Syria, Egypta Land, Asia, Grick-Land, Africa, Hispania, Frack-Land, Valland, Þydskaland, Eingland.

Og Þad Litla Horned, sem Þriu þau fremstu Hornenn af Þeim Tiju skal afbriota, Þad er Mahometh, edur Tyrkenn, hvør ed nu hefur Egypta Land, Asiam og Grick-Land. Hann seger og so, ad Þetta Litla Horned mune strijda a þa hina Heiløgu, og tala Gud-Lastaner j giegn Christo, hvad vier reynum, og siaaum fyrer vorum Augum, Þviad Tyrkenn hefur mikenn Sigur unned a Þeim Christnu, og afneitar Christo, og upphefur sinn Mahometh yfer alla Hluti. Þar fyrer høfum vier vissulega ad vænta hins Sijdarsta Dags, Þviad Tyrkenn mun ecke fleyre Hornenn af briota enn þesse Þriu.

J Attunda Cap. hefur Daniel eina Sierlega Syn, hvør ed eige snerter allann Heimenn, so sem þesse fyrerfarande Synenn, helldur ad eins hans eiged Folk, Gydinga-Lyd, synande Þeim, Hvørnenn Þeim skule ganga, fyrer þad Romverska Rijked, og ædur enn Þad Christus kiemur, einkum under þvi Þridia Rijkenu, Alexandri hins Mikla, so ad þeir hefde enn ad nyu eina Huggun, og ørvinludust ecke j Þeim Harmkvælum sem yfer Þa skyllde koma, lijka so sem Christus munde þa enn yfergiefa, og ecke koma. Og Daniel utleggur ad vijsu sialfur Synena, Þad Hruturenn, med Tveimur Hornunum, sie Kongurenn af Media og Persia, Enn Kiarn-Hafurenn sie Alexander hinn Mikle, Þesse vann Darium, Þann Sijdarsta Kong j Persia, og braut under sig hans Rijke. Og Daniel seger, ad Kiarn-Hafurenn hafe vered so sem Flingande, ad hann hafe ecke komed vid Jørdena: Þviad Alexander hafde so fliotann Frammgang, ad a Tolf ærum lagde hann under sig allann Heimenn, þviad hann twok Kongdoom a Tuttugasta are sijns Alldurs, enn hann andadest þa hann hafde Tvo Vetur hins Fiorda Tugar. So ad sannlega (epter Veralldarennar Plagsid ad tala) þa hefur eingenn meire Madur a Jørdu komed, og ei mun helldur koma, enn Alexander var. Enn Þad sem vex flioott þad forgeingur sliott, Þviad hans Kongs-Rijke nidur hrapade under eins og hann andadest, og ur þvi urdu Fiogur Konga-Rijke, Syrla, Egypta-Land, Asia, Grick-Land:

Nu lætur Daniel þesse Tvø, Asiam og Grick-Land hiaa lijda, enn talar um hin onnur, Syriam og Egypta Land. Þviad Gydinga-Land liggur a mille þessara Tveggia Landa, og hefur Syriam til Nordurs, enn Egypta Land til Sudurs fra sier, hvar Tvø Konga Rijke eylijft Strijd høfdu sijn a mille. Þar fyrer voru Gydingar so sem a mille Hurdar og Gaatta, þunglega af hvørutveggium plaagader. Stundum fiellu Þeir j Lid med Egyptskum, stundum med Syrlendskum, hvørt Rijked sem þa var ødru Yfersterkara. Og urdu opt ad giallda sinnar Naalægdar, so sem Þad skiedur j almennelegre Ofridar Stiriølld. Sierdeilis þa sa Skalkur vard Kongur j Syrla hvørn Sagna-Bækurnar nefna Antiochum Epiphanem, edur þann Gøfga, Hann þiaade Gydinga grimmlega, med Morde og Mannraapum, so sem eirn Diøfull. Guds-Þionustugiørdena j Jerusalem toок hann af, saurgade Mustered, og rænte ur Þvi øllum Dyr-Gripum, uppreiste Afguda-Dijrdkaner og Skurgod Þar jnne, Rak j burt og drap Kienne-Mennena, og alla þa sem ei villdu honum hlyda. Hann villde endelega giora eirn ætrunad af øllum Truar-Brøgdum, og þad skyllde vera ætrunadur Grickia. Til þessa veittu hørum Stirk nockrer Vonder Menn, og Truar-Nijdingar ut af Gydingum,

dingum, þeir ed med ødru Moote kunnu ecke upp ad komast, So sem lesa maa j Firstu Book Maccabeorum j Firsta Cap: Enn hans Æde stood ecke leinge yfer.

Um þennann Antiochum talar Daniel hier, ad epter Alexandrum, ut af einu þeirra Fiogra Hornanna, sie eitt Lijted Horn komed, Þad er Antiochus Epiphanes, af Þui Hornenu Syria, Hann vard megtugur moot Sudrenu, Austrenu, og j moote þui Verduga Lande, Þad er Gydinga Lande, Þviad Antiochus teok fra Egypta-Lands Kongum mørg Lønd og Borger, med Svikum og Prettum, so sem hier seirna stendur j Ellesta Cap. Hann kastade mørgum Stiørnum til Jardar, Þad er, hann drap margann Heilagann Mann i Gydinga-Lande, Nidurbraut og saurgade Þionustugiørd Guds a Himnum, j Musterenu, og innsette þar Skurgoda-Dijrdkaner.

J moote slijkum Fianda upp vakte GUD Judam Maccabeum, og hans Brædur, þeir hielldu Strijd, og unnu miøg mikel Frægdar-Verk, og a Fim aarum felldu þeir af Ovinunum, nærre Tvisvarsinnum Hundrad Þusunder Manna, sem lesa maa j Annare Book Maccabeorum. Þeir hreinsudu Landed og Mustered, og færdu alla Hlute aptur j Lag, so sem hier stendur j Textanum, ad Mustered skule epter Tvø Þusund og Þriu Hundrud Daga hreinsad verda, hvør Daga-Tala ad giører sex aar, og eirn Fiordung aars þar til, so langann Tijma plaagade Antiochus Gydinga, og andadest a þvi sama Siøunda aare, Og so samhliodar þesse Tala miøg vel vid þad sem stendur j Book Maccabeorum.

Þar fyrer seger Eingelenn hier, ad Kong Antiochus skule mikenn Skada giøra Gydingum, og ad hann mune grimmur vera, og ecke skammast sijn neirnrar Ohæfu. Og Sagna-Bækurnar votta, ad hann hafe haft eitt skammarlegt Frammferde, og lifad j allskins liotum Gyrndum: Enn hann mun (seger Eingelenn) aan Handa j sundur lamenn verda, hvad og skiede. Þviad Þa hann foor j Persidem, Fiaar ad afla, baud hann sijnum Strijds-Hofdingia Lysias, ad hann skyllde olldungis asmaa og eydeleggia Jsraels Lyd, Enn sem hann fieck eckert Fie, og hann spurde þar med, ad Judas Maccabeus hafde a Flootta reked Lysiam, og fellt hans Herlid, Þa vard hann siukur af mikellre Reide og Ofolennmæde, þviad þetta hafde ecke tekest epter hans Vilia, og andadest so j miklum Harm-Kvølum, og Hugar-Angre j framande Lande.

Eins skal Þeim Oguðleau Vijkingum ganga. Þviad þesse Antiochus er hier øllum Oguðlegum Kongum og Høfdingium fyrer Sioner og til Epterdæmes settur, serdeilis Þeim sem æda j giegn GUDe og hans Orde.

Þar fyrer hafa aller Kienne-Fedur j fordum Tijd kient og hallded, ad þesse Antiochus sie Figura og Fyrermindan Anta-Christsins, og þeir hafa hitt þar riett a. Þviad þad var vel vidurkvæmelegt, ad slijkur Skemdar-Skalkur og so grimmur Vijkingur, sie til þess utvalinn, ad vera Fyrermindan þeirrar Sijdurstu Svijvirdingar, so sem þad nockur Ord j hinum Tolfta Cap: merkia þetta hid sama, og þad heimugliga avijsa.

Nijunndi Cap: hefur First eina miøg Fagra og ægiæta Bæn, j hvørre Daniel bidur fyrer sijnu Folki, sem j Babylon var herteked, og fyrer Borgenne Jerusalem og Musterinu, ad Gydingar mætte um sijder heim aptur komast, og ad nyu uppbyria Gudlega Þionustugiørd. Þesse Bæn vard þegar bænheyrd, og auk þess sem hann bad, þa verdur hønum opensart giørt, hvørsu mørg aar þar skulu vera, þangad til Christus hann kiemur, og upp byriar sitt eylijfa Rijke, Og þetta er merkeleg og mikel Openberan ut af Christo, sem so glogglega avkvedur Tijmann Nær Christus skyllde koma.

Þessar Siøtijgu Vikur, sem Eingelenn fram setur, þa hallda aller Lære-Fedur med einu Mooti, ad þad sieu ecke Dag-tølu Vikur, helldur aara-Vikur, þad er, sierhvør Vika hefur Siø Aar, enn ecke Siø Daga, so sem Raun giefur Vitne um, Þvi Siøtijgu Daga Vikur eru ecke full Tvø Aar, slijkur Tijme er ecke so sierligur, til slijkrar dijrdligrar Opinberingar. Nu eru Siøtijgu Vikur Fiøgur Hundrud og Nijutijgu aar. So leinge skylldu Menn þa enn vænta Christs, og ad Þeim Tijma lidnum, þa skylldi hann uppbyria sitt Rijki.

Hier er nu adspyriande, Nær, og a hvørinm Tijma skal uppbyria ad reikna þessar Siøtijn Vikur? Eingellinn utskijrer þad, og uppbyriar a þvi aari, þegar Ordid utgeingur, þad Jerusalem skuli upp aptur byggiast. Þviad so segir hann, Fra Þeim Tijma, þegar þad Ordid utgeingur, ad Jerusalem skule upp aptur byggd verda, og etc. Þesse Ord hafa hiner og adrer Imeslega utlagt.

Vor Meining er þesse, ad Þessar Siøtijge Vikur skulu hefiast a Ødru aare Darij Kongs, hvør ed kalladur var Handar-Langur, þvi a þvi sama aare skiede Ord DROTTins fyrer Prophetann Haggeum, og Sachariam, biodande Zorobabel ad uppbyggia Mustered, so sem siaa maa j firsta Cap: beggia Prophetanna. Þetta hid sama baud og eirnenn nefndur Darius, og

og hans Befalning um þetta Efne gieck og ut, Esdre 6. Þviad i fra þui fijrsta Aare Cyrus, hvør ed lausa gaf þa Herteknu Gydinga, allt til annars Aarsins Darii, þa eru 46. Aar, a hvørium Tijma þeir ecke mættu, nie þorðu neitt upp ad byggia, vegna Forbods Cambysis, Sonar Cyri, so ad þeir ørvæntu ad mestu Musterésins Uppbyggingar, og søgðu, sem þar segest, Hag. 1. Ecke er enn Tijmenn komenn ad uppbyggia Hused DRottins.

Og vera kann, ad þetta sieu þau Sex og Fiørutijge Aar, um hvør ad Gydingarner søgðu til Christum, Joh. 2. Cap. Þetta Mustere er upp byggt j 46. Aar, og Þu villt byggia þad upp aptur a þremur Døgum? Þad er, 46. Aar leitudu Menn vid, ædur enn Menn kynne riettelega uppbyria ad uppbyggia þetta Mustere, So torvelldt veitte þad. Þviad þar epter vard þad miøg fliotlega uppbyggt a fiorum Aarum, Esdre 6.

So skipter nu Eingellenn øllum þessum Siøtijgu Vikum, j þria Parta. A þeim fyrstu Siø Vikunum, þad er fra ødru Aare Darius Kongs, allt til hins Fertugasta og Nijunda Aars, þa skulu Mur-Veggerner og Strætenn (j Jerusalem) upp aptur byggiast, a einum hørmulegum Tijma. Þviad þad gieck þeim miøg torvelldlega, af þvi, ad nælægar Þioder hindrudu þeirra Erfide, so sem Nehemias skrifar 4. Cap: Hvor Nehemias ad a Tuttugasta Aare Darii, þad er, a Atianda Aare epter þad ad Orded var utgeinged fyrer Haggeum, þeim til Hiælpar ur Persia, var sendur af Dario, edur kann vera helldur, milldelega af honum laus lætenn. Þviad Eingellenn hiæ Daniele, Cap. 10. klagar, ad Høfdingenn j Persia hafe sier j mote stæded j Kongsins Garde, eirn Dag og Tuttugu, meinande (kann skie) Eingellega Daga, þad eru Tuttugu og Eitt Aar.

Þui næst, epter Tvær og Siøtijgu Vikur (seger hann) mun Christus verda Lijflætenn. Þessar 62. Vikur, og þirar Siø, eru 69. Vikur, þad er, Fiøgur Hundrud, Þriu og ættatijger Aar. Þa er enn epter ein og hin seinasta Vikann, af þeim Siøtije, þad eru Siø Aar. Þviad Eingellenn seger liøslega, ad Christus skule ecke lijflætast j midre seinustu Vikunne (hvørrar Meiningar vier høfum fyrr verid) helldur epter Tvær og Sextijgu Vikur. Þad er, A Fyrsta Aare, edur i Upphafe þeirrar seinustu Vikunnar, a hverre (seger hann) hann mune stadfesta Mørgum Sættmaalann. Þviad j þessare seinustu Vikunne, edur a þeim Siø Aarum, ut-barst Evangelium krøptuglega, med Teiknum og Stormerkium, fyrer þann Heilaga Anda, og margar Þusunder af Gydingum og Heidingium sneru sier til Christum, so sem vottar Lucas j Giorninga-Book Postulanna. So ad þesse Vika mæ vel kallast Paaska-Vika, fra Paaska-Dege, þad er, fra Upprijsunne Christi.

Enn j midre þeirre Vikunne, mun Mat-Offred og Fornfæringarnar af leggiast. Þviad so nær a þvi Þridia Aare epter Upprisuna Christi vard Postulana Concilium, edur Samfundur hafdur, Post: Giørn: B: 15. Og Moses Løgmaal openberlega aftekid, og Heidingiar, Jæ, og so eirnenn aller Gydingar, sagder frij og Frialser fra þvi, so ad þad skyllde ecke hallðast, og þad være og ecke naudsynleat til Saalu-Hiælparennar, þar med Obærelegt, so sem S. Petur predikar j þeim sama Stad. So er nu þad audsynt, ad þessar Siøtijge Vikur endast med þvi Siøunda Aare epter Upprisuna Christi, þa var utgiort um þa forherdtu Gydinga, og þa hardsvijrudu Jerusalem, og Postularner sneru sier til Heidenna Þioda, So sem S. Paall seger, Post: Giørn: B: 13.

Hier ut af siæum vier, ad Eingellenn kallar Christum HØFDINGIA, ei strax epter Skijrnenna, edur hans Predikunar-Embætte (hvøria Meining vier høfum ædur haft) helldur epter hans Upprisu, þa ed hann fyrer sijna Pijnu inn gieck j sijna Dijrd, og situr til Guds Hægre Handar, og er ordenn DROTTinn allra Drottna. So sem þad og eirnenn aller Kongar og Høfdingiar i Ritningunne þeir nefnast Høfdingiar, ad uppbyriadre þeirra Rijkis-Stiorn. Þviad epter sijna Skijrn hefur hann vered eirn Þienare Umskurnarennar. So sem S. Paall hann seger til Rom. 15. ad vijsu, allrar Verallðarennar Þienare med sinne Pijnu.

Enn þar Eingellenn seger, ad Christus skule upprætast, og vera ecke meir, þar ælijtur hann Ord Esaiæ j 53. Cap. þo Bokstaferner sieu adrer, Hann er j burt slitenn af Jordu Lifande Manna. Og er þesse Meiningenn, ad Christi Rijke skule vera eitt Nytt, Andlegt, Himneskt Rijke, hafande alls eckert, hvørke af Moses Løgmaale, nie af Verallðarennar Rijke, Helldur mun hann ysergiefa allt þetta, og uppbyria og hafa eitt annad Nytt, Eylijft, Himneskt Rijke, So sem sa Sextande Psalmur seger, Jeg vil ecke foornfæra þeirra Dryckiar Offur og Blood, og ecke taka þeirra Nafn mier j Munn. So sem þad aller Prophetarner plaga ad tala ut af Rijkenn Christi.

Þessum Reikningskap og Aara-Tølu er hægt saman ad koma vid annara Manna Reikningskap, sem

er, Fra ødru Aare Darii, allt til Alexandrum Magnum, eru Hundrad Fiorutijger og Fimm Aar, so sem Metasthenes hann skrifar, Fra Alexandro til Hingaburdarins Christi, eru 305. Aar. Sumer reikna, 310. Aar. Fra Hingaburdenum Christi allt til hans Skijrnar, eru 30. Aar, þvi nærst eru Þriu Aar til hans Pijnu. Þetta samanreiknad giører alls 483. Aar, þad eru Niju og Sextiju Vikur, Enn þau fimm Aarenn sem yfer eru, og ødrum ber ecke saman vid oss, þad skulum vier ei læta oss villa. Furdande er, ad Heidenna Manna Historiur, og adrar Sagnabækur, verda so giørla samhlioda med Daniele.

Sa Tijunde Capitule, er virn Formaale yfer þann Ellefta Capitula, Þo skrifar Daniel þar jnne nockud Sierlegt, ut af Einglunum, þad sem hvørge annarstadar stendur j Ritningunne, sem er þetta, ad þeir Godu Einglarner beriast vid þa enu vondu, Vernde og vardveite Mennena. Hann nefner og þa vondu Einglana Høfdingia, þar hann seger Høfdingenn ur Grick-Lande.

Ut af hvøriu merkia maa, hvørnenn þad til kiemur, ad j Hofgørdum Konga og Høfdingia so offtiekanlega og vondslega til geingur, og þad hid Goda forhindrast, Strijd og ønnur Olucka uppbyriast. Þviad þar eru Dioflarner, upp hvetia og frammbryna Mennenna, veita Hømlun og Hindran, so ad eckert takest luckusamlega. Til Dæmis ad taka, þa Gydingarner skylldu lauser giefast af Kongunum j Persia, fra Babylon, þa gieck þetta so treglega, Samt þo ad Kongarner giæfe þeim giarnann gott Leyfe heim ad reisa. Þar fyrer seger Eingellenn hier, ad hann hafe nockud ad sijsla, og bliote ad beriast vid Høfdingiann j Persia Lande, og hann sie uggande um þad, ef hann fer j burt, þa mune Høfdingenn af Griek-Lande koma a medann. Sem hann segde so, Nær vier stillum eina Ogiæfu, þa kiemur Dioful nn annare af stad, verded þier lauser ur Babylon, þa munu þeir enn Grisku þvinga ydur. Enn hier er nog um talad, þviad þar heyrer meira Tijma Rum til, ad tala fleyra þar ut af.

J Ellefta Cap: Fyrer-spaaer Daniel sijnu Folke, Gydinga Lyd, hardt nær lijka sem j 7. Cap: sagde hann, ut af Alexandro Magno, og þeim Tveimur Konga-Rijkium, Syria og Egyptalande, Þetta giører hann hellst vegna Antiochi Epiphanis, sem Gydinga skyllde hardlega plaaga. Þennann utmaalar hann so, og snyr þangad, sijnum Ordum, ad hann under Personu Antiochi utskrife, og utmaale Anta-Christenn sialfann, Stingande so Fingre a þessa vora sijdurstu Tijd, j møte þelm Sijdarsta Deige sialfum. Þviad aller Kienne-Fedur utleggia med einu Moote þennann Spaadom um Antiochum, ut af Anta-Christenum. Og sialf Ordenn Danielis giefa þennann Skilning, so ad vier hliotum ad hallda, ad hann talar ecke einungis um Antiochum, helldur slær hann þeim Antiocho og Anta-Christe j eitt, og giører so villande sijn liosu Ord vandskilenn.

Þrijr Kongar, seger hann, munu enn standa j Persia. Þad er ecke þeirrar Meiningar, ad Persia Land skule hafa so faa Konga, so sem Judar utleggia þad, þviad þar hafa vered minnst Tiju Kongar, Enn þesser Fiorer segiast þvi ad standa j Persia, ad þeir hafa vered sierleger j hiaa hinum ødrum, sem var, Epter Cyrum kom Cambyses, Darius, Xerxes, þesser eru þeir sierlegustu, Og þesse Xerxes var þeirra rijkastur, þann for Herferd j Griek-Land, med Otelllande Her, enn hann fieck Osigur, og komst sialfur undann naumlega, med Skomm og Sneipu. Epter þessa kom Alexander, og hans Fiorer Epterkomendur, enn ecke af hans Ætt, nie Blode.

Þetta er Upphaf þeirra Tveggia Konga Rijkianna, Syrlands, og Egyptalands, hvør ed sijn a mille rifust, og børdust. Hier verdur ad setia Nøfn Konganna, so sem a eitt Spialld, edur Blad, so ad Menn fare ecke villt j Historiunne og Textanum.

Alexan-

# Alexander Magnus.




Epter Alexandrum, vard Kongs-Rijked j Egyptalande miøg Megtugt, um hvørt Daniel talar hier. Sømuleidis Kongs-Rijked j Syria, so ad hvørke fieck þar annad yferunned, nie under sig broted, hvørsu opt sem þau reyndu þar til, og villdu þad giarnann giørt hafa.

Þad Firsta Strijd hoofst a mille þeirra Antiochus Theos, og Ptolomeum Philadelphum, Enn sem þeir høfdu leinge Bardaga ꜳtt sijn a mille, þa sættust þeir. Og Ptolomeus Philadelphus var sierlega Agiætur Kongur, hann elskade Fridseme og allshꜳttadar Jþrotter, hann hiellt marga lærda Menn, og samansafnade Fiølda Booka ur øllum Heime. Gydingum veitte hann mikla Velgiørninga, Mustered og Gudlega Þionustugiørd til Jerusalem, prydde hann storlega, so ad eg helld, ad hann sie eirn af þeim Heiløgu Konungum.

Þesse Ptolomeus hann gipte sijna einka Dottur Antiocho, hun hiet Bernice, til Stadfestu þeirra Sꜳttar, glørdar, og andadest sijdann þar epter. Enn Bernice, so sem eins Megtugs Kongs Dotter, og þar med nu eirnenn Volldug Drottning j Konungsins Garde, stundade þar epter, ad hennar Son yrde Erfinge Rijkesins j Syria. Enn þad brꜳst, þviad Laodicea, su fyrre Drottning Antiochi Thei, og hennar Tveir Syner, Seleucus Gallinicus, og Antiochus Hierax, voru gramer henne og hennar Syne, og hugdu siꜳlfer ad erfa Rijked. Og Laodicea gaf sijnum Herra Antiocho Theo Olifian, þvi nærst egnde hun Sonu sijna j mote Bernice, þeirra Stiup-Modur, þeir rꜳku hana ur Lande burt, og drꜳpu hana um sijder, og hennar Son, og alla þeirra Þienara, Þetta meinar Daniel hier, þar hann so seger, Enn hun mun ecke blijfa vid Magt þess Armleggsins, þar ad auk mun hennar Sæde ecke standa, helldur mun hun med Barnenu, Þienstrønum, Jꜳ, og so med hennar Herra Konge, af hvørium hun er ordenn so Megtug, ofurseliast j Daudann.

Slijks Manndrꜳps hefnde Bernice Broder, Ptolomeus Evergetes, hann ꜳtte Orustur vid þa Brædur bꜳda, og rak þa ur Lande, rænte þeirra Rijke, og reiste sijdann heim aptur. Litlu einu þar epter deydu þrijser Tveir Brædur, og Modur-Drꜳparar, einum herfelegum Dauda: Hier um talar Daniel, og seger, ad Kongurenn mot Sudrenu mune med Ogrynne Her jnn falla j Rijked Kongsins mot Nordrenu, og Sigur vinna.

Epter Dauda Ptolomei Evergetis biuggu þeir sig til Strijds, Seleucus Ceraunus, og Antiochus hinn Mikle, sem voru Syner Gallinici, Enn j Vidurbuningenum siꜳlfum andadest Seleucus Ceraunus, þvi vard Antiochus ad hrada Ferd sinne fra Babylon, og hallda framm uppteknu Strijde j mote Ptolomeo

Syne Evergetis, sem nefudest Ptolomeus Philopator. Enn Ptolomeus Philopator sigrade Antiochum hinn Mikla, og hans Herlid.

Þad seger Daniel hier, ad Syner Galliniei munu reidast, og fara j mote Ptolomeo Philopator. Enn Philopator mun yfervinna þa, og verda af þeim Sigre Drambsamur. Þviad þesse Philopator gaf sig sijdann til Lauslætis Munadar, og drap Drottningu sijna Euridice (sem var og hans Syster) fyrer saker eirnrar Stelpu, sem hann elskade.

Enn Antiochus hinn Mikle, ad frafollnum Philopator, safnade Lidsafla ad nyu, j mote Syne Philopators, sa hiet Ptolomeus Epiphanes, hann var þa Barn ad Alldre, Fiogra edur Fimm Vetra. Og sem þad skiedur, þegar Herrarner hafa Fiarhallds-Menn, þa samlbundu sig, mote Epiphane, adrer Kongar med Antiocho, einkum Philippus j Grick-Lande, viliande skipta med sier Lande hins Unga Ptolomei. Þar med var j Landenu siaalfu Osamþyeke og Sundurlynde, Gydingar fiellu og eirnenn honum j fra, til Antiochum.

Af þvi seiger Daniel hier, ad Kong Antiochus mune koma aptur, og ad marger munu upp rijsa j mote þeim unga Epiphanes, so ad Armlegger Sudursins, þad er þeir Høfuds-Menn Epiphanis, sem hann hafde j Phenice og j Gydinga-Lande, og til Jerusalem, þeir mundu ecke kunna ad standa, helldur vann Antiochus þesse Lønd øll. Hann kom og j þad Verduga Landed, til Jerusalem, þa veittu Gydingar hønum Stirk, til at utdrijfa med øllu Høfuds-Menn Epiphanis. Þar fyrer veitte Antiochus Gydingum miklar Sæmder, og gaf þeim stoorar Gaafur og Frijheit.

Enn sem hann liet sier ecke hier med nægia, helldur hugdest og ad vinna under sig Egypta-Land, þvi bad Ptolomeus Epiphanes Romveria um Stirk. Þa hlaut Antiochus af ad laata, og giørde Frid vid Ptolomeum Epiphanem, og gaf hønum sijna Dottur Cleopatra, enn ei af goodum Huga, helldur (so sem Daniel hier seger) hønum til Fordiorfunar: Þviad med þessu Giptumaali sinnar Dottur, hugde hann sier ad svipta hann Rijkenu, Enn Drottningenn, og þeir Egyptsku saau vid þessu.

Þvinærst heriade hann um Eyar Asia Lands (so sem Daniel hann seger) og vann margar af þeim. Enn Romveriar komu hønum j moote, og raaku hann til baka, flettu hann goodum Kyrtle, hardt nærre øllu Asia Lande. Þar epter snere hann heim, og for j Persiden, viliande sækia miked Fie, j Mustere Elamidis. Enn Lands-Folked var uppe, og sloo hann til Dauds, og allt hans Herlid. So bleif hann j framande Lande, og vard hvørge fundinn.

Nu hafde hann adur firre, þa þeir Romverskir sigrudu hann, giefed j Gisling Romveriuin sinn Son Antiochum, ad Vidur-Nafne Gøfga, þann Yngsta, og fyrerlitnasta. Epter Fall Antiochi took hans Sonur, Seleucus Philopator, Kongdom, einn fyrerlitlegur Madur, sem Daniel seger hier, betur fallenn til By-Sveins og Fogeta, enn til Kongs, framde og eingenn Høfdingleg nie Manndomlig Verk, lifde og ecke leinge.

Þa komst Antiochus hinn Gøfge, med Leynd af Rom, Og þo hann være fyrerlitenn, og alldrei ætladur til Kongs-Tignar, sem Daniel seger, þa læddest hann þo framm, og med Fyrerheitum, Flærd og føgrum Ordum, vard hann Kongur, Þesse er sa seinaste Kongur, um hvørn Daniel skrifar, þad Gøfuga Goda Barned, sem allt vann med Slægd og Svikum, Lygum og Prettum, ei so sem Kongur, helldur so sem Aerulaus Skalkur. Þviad hans Kindugleike var plumpur og ohæferskur, og skammadest sijn einskis, og ei skeytte hann um neina Sidseme. Vegna slijks Skalks og Ill-Mennis er þesse Syn hellst skied, Gydingum til Huggunar, hvøria þesse Antiochus skyllde plaaga med allskins Plaagum.

So sem hann hafde nu Rijked feinged med sinne Slægd, so leitade hann vid, med þeirre somu List, ad komast yfer fleyra. Og af þvi, ad Egypta-Lands Kongur, sa hiet Ptolomeus Philometor, hans Systur Son, var a Bernsku Alldri, þa liet hann, sem hann villde vera Vørdslu-Madur (edur Umbods-Madur) sijns Systur-Sonar, og took under sitt Valld Borgernar j Syria, Phenice og j Gydinga-Lande. Enn þa Høfdingiar Egypta-Lands krofdust þessara Borga aptur, þa villde hann þær ei lausar laata. Þar hoofst þad Strijded, um hvørt Daniel talar hier, ad hann sem annad Vatns-Flod mune yferfalla yfer Armlegg Egyptskra, þad er, Høfdingia og Hertuga Philometoris, þviad hann vann Sigur a þeim.

Þessa Slægd liet hann sier ecke nægia, hann hugsade og eirnenn ad koma under sig øllu Egypta-Lande, giørde Saatt vid Høfuds Menn Philometoris, Let sem hann giørde allt þetta, sem einn Trur Vørdslu-Madur, sijnum Systur-Syne til goda. Med slijkum Kindugskap for hann (so sem Daniel seger) med litlu Lide inn j Egypta-Land, Þvi þeir upplietu fyrer hønum øll Borgarhlid, so sem ødrum Truum Kongsins Vørdslu-Manne. Enn hann sette uppa sig Korónuna, og giørde sig ad Konge j Egypta-Lande, greip, Rænte og ruplade allt Egypta-Land, med slijkum Svikum (so sem Textenn seger hier) hvad eingenn af hans Forveriurum fieck med Vallde giørt, og for sijdann heim aptur j sitt Rijke.

Enn þa Philometor Kongur var vaxenn, og hann took Rijkis-Stiorn, þa leitade hann epter ad naa

sijns

sijnu med Vallde, og so bíuggu bæder þesser Kongar sig til Bardaga: Enn sem sa Gofuge Sveinenn Antiochus sa þad, ad Philometor munde verda hønum yfersterkare, þa breytte hann epter Vanda, og ladade til sijn med Fiegiøfum marga, so ad Philometoris eiged Folk fiell til Antiochum, og þess vegna urdu marger jhel slegner, þo vann hann ecke Rijked ad helldur. Þvi næst giorde hann Sætt enn aptur ad nyu, vid sinn Systur-Son, samneytte hønum, og talade vid hann under Bordum, og villde giarnann enn einn Sinne komast j Egypta-Land. Enn þeir trudu hønum ecke so sem fyrr, Og so sem Daniel seger hier, þa hugsudu bæder Kongarner hvør annann ad fordiarfa, med Yfervarpe þeirrar Fridargiørdar.

Antiochus for nu heim j Rijke sitt, med Ogrynne Fiaar, og a Veigenum vard hann fyrer sinn Rindugskap innlaateun j Borgena Jerusalem, þar rænte hann Borgena og Musstered hørmulega, so sem þar stendur Maccab: 1. Cap: Og Daniel seger hier, ad hann mune setia sitt Hiarta j mote þeim Heilaga Sattmaala

Tveimur Aarum hier epter, þa hans Lygar og Pretter villdu ecke leingur duga, hugde hann med Herskylldе ad vinna Egyptaland, og for Hersør j mote sijnum Systur Syne, eige nu sosem Vordslu-Madur, helldur so sem opeuuber Fiandmadur. Enn Daniel seger hier, ad þad mune ei luckast hønum so sem fyrr. Þviad Romverjar, hvørier ad voru Philometoris Kongs Vordslu-Menn og Verndarar, epter hans Fødurs Testamente, þeir sendu einn Raads-Herra, hann hiet Marcus Popilius, med Herlide, til Antiochum, og budu hønum ad vijkia af Egyptalande. Enn hann villde hier ncita sinna Lista, og vijsade þeim Romverium fra sier med føgrum Ordum, og kvadst vilia raadgast þar um med sijnum Vinum. Marcus Popilius markade med Staf, er hann hafde j Hende, eirn Hring j Sandenum, j kringum Antiochum, þar hann stod vid Sioenn, og sagde, So seger Raaded j Rom, Ut yfer þennann Hring skalltu ecke stijga, fyrr enn þu giefur Andsvar, Hvørt þu villt helldur hafa Ofrid edur Frid. Þa vard Antiochus ad fara j burt med Sneipu, heim j sitt Land.

Þa gieck þad (hid Vonda) yfer Jerusalem, og yfer Guds Hus, yfer hans Þionustu-giørd, og hans Folk: Þviad hann gat hvørge annarstadar svalad sinne Reide, nie hefnt sinnar Smaanar, nema a Gude og hans Rijke. Og marger Ogudleger Menn, ut af Gydingum, hiaalpudu hønum, og hielldu sig til hans. Þar til ad Gud uppvakte, hønum j mote, Judam Maccabeum, og hans Brædur, so sem ad vier getum j 8. Cap: Og Daniel seger hier j Textanum.

## Sa Tolfte Capitule Danielis,
### Af Doct: Mart: Luth: utlagdur.

Sa Tolfte Cap: hlyder med øllu uppa Anta-Christ, tenn, under Nafne Antiochi, og uppa þennann Seinasta Tijma a hvørium vier lisum. Þar fyrer er hier øngrar Frasagnar ad vænta. Helldur tilvijsar og seger þad hreina Evangelium einum og sierhvørium lioslega, nu a þessum Tijma, Hvør ed sie sa sanne Anta-Christurenn, sem ad sig hefur upphafed yfer alla Gude, og ei hefur skeytt um Kvenna-aastena, þad er Hiuskapar-Banded, Helldur fyrerboded þad, Og þar i stadenn uppfyllt Heimenn med Hiaaguda-Dijrdkan sins Guds, og liotum Holldsins Syrndum, og hefur Klesiodum og Audæfum Heimsins utbytt og skipt, etc. Þviad Kvenna-aast kallast ecke sa liote Syrndar-Brune, Helldur merker þad eirn Ærlegann og Sidsamlegann Kiærleika til Kvinnurnar, hvørn Gud hefur skapad og boded, sem er Hiuskapar-Banded, Med þvi ad Prophetenn reiknar þetta fyrer þann mesta Glæp Anta-Christsins, ad hann hirder ecke um Ast Kvennanna.

Vier hefdum giarnann sied, ad elnhvør annar hefde teked sier fyrer Hendur þennann Cap: og utskyrt hann allann, vorre Tru til Styrkingar, og til ad uppvekia þa Von j oss, þess vors Hiaalpræđis og Endurlausnar Dags, sem nu er ad Sønnu nalægur. Enn af þvi þad er ei skied, þa vilium vier hier med giefa ødrum Tilefne, ad hugsa betur um Skilning þessa Texta.

First stendur þar lioslega j Nidurlage Ellesta Capit: ad epter Antiochum, þa mune vera enn Annar Tijme fyrer Høndum, so ad þesse 12. Cap: kann ecke ad understandast um Antiochum, med þvi ad þad skal vera annar Tijme, Enn hvad a þeim ødrum Tijmanum skie skal, þad bodar Eingellenn hier, og seger.

### Og sa Kongurenn mun giora hvad hann vill,

Þad er, Hann mun ei undergiefenn vera neinum Løgum nie Lærdome, helldur mun hann sialfur vera Løgenn, og hvad hann vill, þad hlytur Løgmaal ad heita, Slijkur Kongur, j hvøriu hellst Rijke sem hann er, þa er hann ol-jdanligur Vijkingur, Enn j Rijkenu Christi (um hvørt Daniel talar) j hvøriu Menn eiga Christo fyrer Truna hlydner ad vera, þa er slijkur Tyranne edur Vijkingur j øngvann Maata lijdande.

Hier er nu Pavenn med sijnum Lit og Einkiennе lioslega utmaaladur, sem j sijnum Decretalibus skammast

mast ſijn ecke ad ſegia, Ad allar Kyrkiur og Throna eige hann ad dæma, Enn hann eige ecke af neinum dæmdur ad vera. Og j Cap: Solitæ, ſtendur ſo, So ſem Solenn er yfer Tungleну, ſo er Pavenn yfer Keyſaranum. Enn hvat Yfervallds-Tignenn er, þar er og Vallded til ad bioda, hinum ødrum ber Skylldann til ad hlyda.

Hier ut af hroſa hans Hræſnarar, og kalla Scrinium pectoris, þad er, J Hyrdſlu hans Hiarta eru folgenn øll Løg. Item, Sic volo, ſic jubeo, ſit pro ratione voluntas. Og j þeim Capitula, Si Papa. Þo ad Pavenn leidde til Helvijtes Oteliande Saaler, þa ſkal þo eingenn dyrfaſt ad ſegia, Hvad giører þu?

Þetta alltſamann er ecke ad eins ſo kiennt og lært, helldur bera hier Verkenn ſiaalf Vitne um. Þviad ecke er Keyſarenn ſiaalfur Keyſare, helldur Pavenn, hvørinn Keyſarenn er undergiefenn ſem annar Þienare, ſo ad hann hlytur ad kyſſa a hans Fætur, med øllum ſijnum Laga-Riette. Þetta hefur og S. Petur fyrer ſagt, Ad koma mundu Þeir ſem lifa epter ſiaalfs þeirra Gyrnd edur Vilia, med hvørium Ordum hann utleggur þeſſe Ord Daniels (Hann mun giøra hvad hann vill.)

Þvi næſt ſeger hann:

**Hann mun taka ſig upp, og upphefia ſig yfer allt þad ſem Gud er, og j mote þeim GUde allra Gudanna mun hann hrædelega tala, og þad mun honum luckaſt, þangad til ad Reidenn er ute.**

Eins þa utmaalar Pavenn ſiaalfann ſig, þa ed hann hroosar ſier j ſijnum Decretis, ad Hann ſie Yfer Heilagre Skrift, og ut af ſiinu Pavalegu Sæte, hiote Hyn-Stadfeſtu og Mindugleika ad taka. Enn miklu framar audſyner hann þetta med Verkenu, þviad þeir ſem ut af Skriftenne hafa nockurn Tijma a mote honum talad, þa hefur hann alla Bannfært, Fordæmt og i Elde brennt, ſo ſem adra Villu-Menn og Fiandans Børn, og þetta giører hann enn daglega. Og Papiſtarner laata alldrei af ad kalla, þad Chriſteleg Kyrkia (Pavans) ſie Yfer Skriftenne. Þad kallar hier Daniel ad tala Hrædeleg Ord j giegn Gude allra Gudanna. Og hønum hefur þetta luckaſt, og þetta hefur orded riett ad heita, af Guds Reide yfer þeim Oþacklaata Heime, ſo ſem S. Paall ſeger, 2 Theſſ. 2. Gud mun ſenda þeim kroptugann Villudom, ſo ad þeir true Lygunum.

Þviad adrer Tyrannar þeir hafa offſokt Guds Ord ovitande, enn þeſſe giører þad vijsvitande og viliande, ſetur framm, og les þa Heiløgu Ritning og Guds Ord, hvørs Herra hann vill vera, enn fordæmer þad þo ſo ſem annann Diøfuls Lærdom, hvørvetna, þa hann ſiaalfur vill. Þvi lætur hann kalla ſig eirn Jardneſkann Gud, Jaa, GUD allra Guda, DROTTinn allra Drottna, Kong allra Konga, ecke ſliettann Mann, helldur ſo ſem nockurn Guddoms-Blending, edur Guddomlegann Mann, ſo ſem Chriſtur ſiaalfur er Gud og Madur, hvørs Vicarium hann helldur ſig, og enn Ædra.

So hefur S. Paall, 2 Theſſ: 2. Cap: þennann Texta Danielis leſed, Þar mun opinnber verda Sa Syndarennar Madur, og Gløtunarennar Sonur, hvør ed ſig upphefur, og ſetur upp yfer allt, og j mote øllu þvi ſem nefneſt Gud, edur vegſamaſt. Og ſitur j Muſtere Guds, og ſyner ſig ſo ſem Gud. Þviad yfer Guds Veru og Tignar-Vellde kann eingenn ſig ad forhefia, helldur yfer þann Nefnda, Predikada, og Vegſamada Gud, þad er, yfer Guds Ord og Gudlega Þionuſtugiørd, edur Sacramenta.

Madur Syndarennar, og Gløtunar Sonur, kallaſt hann ecke þvi ad eins, ad hann er fyrer ſiaalfann ſig einn Syndare og forglatadur, edur eirn einungis Perſonulegur Syndare, Helldur ſa ſem er Almennilegur, þad er, Sa ſem adra dregur med ſier j Synder og Gløtun, So ſem Villu-Menn og Vijkingar villa og fordiarfa med ſier Lønd og Lyde. Slijkann ſeger Heiløg Ritning vered hafa Jeroboam Kong, þad hann hafe kiennt Iſrael ad Syndga, edur laatid hann ſyndga, medur ſinne Nyrre Guds Þionuſtu-giørd.

Slijkt Syndſamlegt Embætte hefur Pavenn med Tvennu mote framed. Firſt j þvi, ad hann hefur innſett og ſtickad margar Nyar Guds-Þionuſtu-ordner, ſo ſem hier ſeirna ſegeſt, j hans Maoſim, ſem er, Aflaat, Vijgt Vatn, Akall Heilagra, Pilagriims Gaunngur, Brædralag, Munkaſtietter, Meſſur, Føſtur, Helgeholld, etc. Enn nidur broted og ſaurgad þa riettu Guds-Þionuſtu-giørd, ſem er Guds Ord, Truenn, Sacramentenn.

J annann Maata, ad hann hefur þvingad Chriſtna Menn, med Otølulegum Setningum, og giørt þar Synd ſem Gud villde øngva Synd vera laata. Snøggt ad ſegia, Hann hefur ſo nær allar Skiepnur Guds ſaurgad med Synd. Þviad Smiør ad eta, Egg, Oſt, Miolk, Kiøt, þad var Synd þa og þegar hann villde, hvørra Hluta Gud hefur þo unnt oſs med Frelſe, hreinferduglega, og aan Syndar ad neyta. Daga og Tijma hefur hann og ſo med Synd ſaurgad, Þviad hvørvetna þegar hann villde, þa urdu Menn Føſtur og Haatijder ad hallda, og a þeim Tijma var Synd ad neyta nockurs Matar, jafnvel Brands, og ſo ad drecka.

Stadena, og Kierenn hefur hann og ſo med Synd ſaurgad, þviad Kyrkiur og Vijgda Stade hefur hann

hann so Heilaga giort, ad Menn þordu nælega hvørke ad koma þar vid Stocka nie Steina, einkum vid Alltared og þad þvi til heyrde, þad var Høfud-Glæpur, ef ad nockur Leik-Madur took berum Høndum a Kaleikinum, Patinunne, Corporalnum, Skyllde nockud þveiged af þessu, þa þorde eingenn Nunna, hvørsu Heilog sem hun var, ad þvo þad, fyrr enn þad var ædur fyrre af Kienne-Mannenum þveiged. So var Kaleikurenn, Patinann, Corporallenn, og aller vijgder Hluter, fuller Løgmaals og Syndar. J sama Maata var og eirnenn Synd, Brullaup ad hallda a forbodnum Tijmum, Item, Hionabands-Sængenn blaut og j Synd hertekenn ad vera, þa hann villde. Sømuleidis saurgade hann og eirnenn Prestanna Lijkame, Þviad þad var Synd, ad hafa Haar a Høfde, sem Naatturann vaxa lætur, og GUd hefur skapad, þvi urdu Prestarner ad raka Krunur og Skiegg, þa voru þeir Heilager halldner (ellegar ecke.)

Snøggt ad segia, Lijf og Lijkame Christenna Manna þad var allt hallded O-heilagt, enn af honum vijgder þeir voru aller Hellager. Eg þeige um þad, hvørsu audvelldlega eirn Leik-Madur maatte missa sig, og forgrijpa sig a einum Vijgdum Manne, edur ødru þvi sem vijgt var. So hefur hann og eirnenn saurgad Klædnadenn, Þviad hvør sa Mukur eda Nunna, sem ecke bar sijna Kapu med þvi Snide og þeim Lit sem boded var, hann var eirn Syndare halldenn, og fordæmanlegur, sømuleidis var og haattad um Presta-Klædnadenn.

Med þessum Hætte hefur hann, so nær allra Skiepna Neytslu med Syndunum saurgad, Matenn, Dryckenn, Klædnadenn, Stadena, Tijmana, Lijkame og Lifnad Mannanna. Og hefde hann enn leingur rijkt, þa kann vera hann hefde fyrerboded ad hoosta, hridia og hrækia og freta: So sem være þetta Andskotans Høfud til þess þar sett, ad hann skyllde Christnena med Løgmaals Setningum, Syndum og Forbode plaaga, fyrer Neytslu allra Skiepna, og kaupa sijdann Fie og Peninga þar af, med sinni Dispenseran og Leife, og cte. Og slijkar Syndir og Svijvirdingar vorn halldnar Helgedoomur, og serleg Guds-Þionusta, aalijka so sem Jeroboams Kaalfar. Slijka Synd og Glstun meinar S. Paall j þeirre Grein til Thessalonicenses.

Þetta er þad sama sem Daniel seger, Hann setur sig i moote og upp yfer GUd allra Gudanna. Þviad fyrer Moysen gaf GUd og so Løgmaalid, og þiaadi Gydinga med mørgum Syndum, þar Annars af Naatturunni til eingenn Synd var, Enn med þvi hann var GUd, Þa hafde hann goodann Riett þar til, Enn þetta Andskotans Høfud, og su fula Guds Apinia villdi breyta þar eptir, og giørdi marga Hlute enn framar, og j mooti þeim Sanna GUde. Þviad Guds Þionustugiørd hefur hun aftekid, og med oteliandi Løgmaals Setningum og Statutum (þar hann hafdi øngva Magt til) Otelianligar Synder, fyrir Neytslu allra Skiepna, j allann Heiminn innleidt. Og syner sig hier med, so sem ad være hann GUd j Musteri Guds, þad er j Christninne. Þetta alltsamann audsyna og sanna hans Statutur og Decretales.

Med þessum Tveimur Hlutum hefur nu Pavenn, Tvær Hierarchias nidur brotid. Med þvi Fyrra hefur hann undir Fætur sier trodid Veralldlegt Løgmaal, Laganna Hlydne, og Yfirvalld, og þad burt teked og nidurbroted, þa hann hefur viliad. Keysara, Konga, Høfdingia, hefur hann af sett, bannfært og fordiarfad, og med Bannfæringu fyrerbodid þeirra Børnum og Undergiefnum ad veita þeim Hlydne, Snøggt ad segia, Alla Hlute hefur hann giørt epter Vilia, og sinne Girnd, og var ei neinum Riette nie Laga-Setningum undergiefenn.

Med þvi Ødru, þa hefur hann Christelega Kyrkiu foreydt, Heilaga Ritning under sig lagt, Sacramentenn vanad, og þeirra Tijdkan umbreytt, Evangelium nidur þrickt, so ad Menn þecktu þad ecke nu leingur, Og med þessum Hætte hefur hann, bæde Guds Ord og hans Þionustugiørd afmaad og ad øngvu giørt.

J Þridia Maata seger Daniel so.

GUd Fedra sinna mun hann ecke akta, Hann mun hvorke um Ast Kvenna nie nockurn GUd hyrda, Þviad hann mun taka sig upp j moote øllum Hlutum.

Þad hann hafde fyr rædt um GUd, þad talar hann hier upp aptur, so ad hann auke hier enn fleyra vid. Þegar nockur talar fyrer honum, um hans Fedra GUd, þad er, um Christum, hvørn Postularner og hans Forfedur hafa predikad, þa situr hann so fast, uppe yfer Gude allra Gudanna, ad hann skeiter þvi ecke, og hvørke vill hann þad heyra nie vita, Helldur af Drambseme, Metnadi og þverbrotinne Forherdslu deyder og drepur alla þa sem rietteliga kienna Christum.

Og uppa þad, ad hann læti ei nockurn Hlut eptir O-fordiarfadann, þa mun hann sundur slijta þa Þridiu Guds Hierarchiam, sem er, Hiuskaparbands Stiettena, hvøria hann hefur ecke ad eins forboded þeim Andlegu, helldur ølldungis lastad hana, nidrad, forsmaad og ad øngvu giørt, j þvi, ad hann forsmaanarlega kallar hana eina Ohreina, Holldlega, Ogudliga Stiett, hvar inne ad eingenn kunne Gude ad þiona, hugsande ecke um þad, ad GUd hefur blessad Hiuskapar-Banded, og nefner þad sinn Saattmaala, og þad honum vel þocknast þad, og fyrer Syndanna Fyrergiefning þa kalle hann Hiuskapar-Bands Sængena

hreina og heidarlega, og vill ecke tilreikna þar jnne Hollðsins Gyrnder. Med þessum Hætte skal nu Anta-Christurenn bølva Þvi sem GUd Blessar, sundur slijta þad sem GUd samteinger, lasta þad sem GUd lofar, Summa, Yfer GUde, og j moote GUde alla Hlute giøra, eydeleggia, spilla og fordiarfa.

Slijkt Forbod Hiuskapar-Bandsins hefur hann ecke giørt ut af neinum Hreinlijfis Kiærleika, nema ad eins af Yfervarpe, helldur uppa þad, ad hann frij og friaalslega meige giøra hvad hann vill, og vera øngvum undergiefinn nie plicktugur, so ad hann þurfe ecke ad bera Sveita Andlits, nie annann Erfidis þunga og Armædi, sem Gud hefur lagt uppa þær Þriggia-Handa Stietter, sem er su Andlega og Veralldlega Stiett, og Hiuskapar-Bandid, helldur ad hann meige, epter sijnum eigennlegum Vilia, frij lifa j allskins Bijlijfe, Kirrd, Athugaleysi, Idiuleysi, Virdingum og Valldi.

Þviad ad predika, kienna og læra, og Christninne ad þiona, þad hefur mikla Armædu, Haaskasemder og Omak med sier. Sømuleidis er og Þungt Veralldlegt Valld-Stiornar Embætte, sem j Løgum og Lands-Riette er innebunded og folged. Hefur og Hiuskapar-Bands Stettinn sijna Ahyggiu, Erfide og Haaskasemder, vegna Kvinnu og Barna, Hus og Heimilis. So seger og S. Paulus, ad þeir sem Hiuskapenn fyrerbioda, tale Lygar med Hræsne, þviad eige giøra þeir þad vegna Hreinlijfis, helldur vegna sijns fula, liota, Idiulausa, siaalfrada Lifnadar. So sem þad Munkar flya ecke þennann Heim, þad er, þeir giefast ecke j Klaustur, vegna Helgedoomsins, helldur ad þeir meige hafa Idiuleysi, Frid og gooda Daga j Heimenum.

Þar Daniel seger, Ad hann mune tala hrædilega j giegn GUde allra Gudanna, Item, ad hann mune ecke akta neirn GUd, eins so sem hielldi hann fleyri GUde ad vera enn einn. Þad er so adskilia, Ritningenn hefur þa Heiløgu, Jaa, eirnenn þa Veralldlegu Yfervallds Herra GUd kallad, Psalm: 82. Joh: 10. Þar fyrer er þetta Meiningenn Danielis Orda. Ad Pavenn mune hvørki akta þann Hæsta GUd, eige helldur þa hvørja hann hefur ad Gudum giørt, þad er, hvørki Christnena, nie helldur Veralldliga Høfdings-Stiett.

Þetta er nu eirn Partur af Athæfi og Lijfssøgu Pavans, edur Anta-Christsins, sem Daniel um talar hier, hvørsu hann skuli j sundur slijta, nidur briota og eyda allre Guds Skickan. Sa annar Partur filger nu epter, hvad Anta-Christurenn, Pavenn, skuli þar j mooti upp byggia, uppreisa og ad hafast.

Enn j hans Stad, mun hann sinn eiginn GUd Mausim heidra. Þviad hann mun þann GUd sem hans Fedur vissu ecke af, heidra, med Gulle, Silfre, Gimsteinum, og Dyrgripum, og etc.

Þetta Ordid Mausim hefur Einginn (þad eg af veit) hingad til Dags ut lagt. Vier vilium hætta til, ef GUd villde giefa oss ad hitta uppa þa riettu Ut-þyding. Maos nefnest med riettu Stirkleike, edur øruggt Vijge, so sem Slot og Kastalar kallast stirk, ørugg Vijge, og j Psalltaranum nefnest GUd opt Vor Maos, þad er Stirkur og Øruggt Stirktar-Vijge, edur Kastali.

Þar fyrer laatum vier þetta Orded First merkia þau Stein-Hus sem af Steinum eru smijdud, og Menn kalla Kyrkiur, og þad sem þeim til heyrer, þviad þau Hus eru forkostulega sterkliga upp biggd, framar enn ønnur Hus, þvi lijkast sem Slot og Kastalar. Þetta eru Domkyrkiur og Klaustur, um allann Christinndominn, hvør ecke eru Gudi nie Christo til Heidurs, edur Þionustu-giørdar Upp-biggd, þvi GUd byr ecke j þeim Husum sem af Manna Høndum eru giørd, seger S. Stephanus Act: 7. helldur Pavanum. Þviad j þeim rijkir hann, og leikur sitt Apa-Spil med sijnu Vijgdu Vatni, Messum, Saalu-Tijdum, Raadum, Purgatorium, og ødrum fleyrum þess haattar Verkum. Þangad hefur hann safnad øllu Veralldarennar Gulle, Silfre, Gimsteinum, og Dyrgripum, þar ad auk øllum Stirkleika og Magt sijns Guddoms. Þviad þar jnne lærdu og lifdu Menn epter hans Vilia og Bodordum. Þesse Hus hefur hann og so forprydeliga og sterklega stadfest, enn þo ei med Vopnum edur Verium, alleina med sinum Bullis, Briefum og Innsiglum, so sem annar Tøfrare, edur Galldra-Madur.

Og einkum þa þionudu Pavanum Kanuca-Kyrkiurnar og Klaustrenn, þviad j Soknar-Kyrkiunum veittest GUde nockur lijtel Þionusta, med Skijrnar Embættenu, Sacramentunum Alltaresins, og Predikun, þo ad þad være ei olldungis hreint, og eru þartil enn nu a þessum Deige o-virdugligar halldnar enn Dom-Kyrkiur edur Klaustra Kyrkiur. Enn j Dom-Kyrkiunum og Klaustra-Kyrkiunum, þar hafa Menn Daga og Nætur af øllu Megne Pavanum þionad. Eigi voru þau Predikunar-Hus, Helldur Messu-Hus Daudra Manna, þad er, Vigiliu-Hus, þar jnni meir var lesed og sunged, og giort fyrer þeim Frammlidnu, helldur enn þeim Lifondu. Item þar Menn dryniudu og hrinu jnne, Item, þad voru Gull-Hus, Silfur-Hus, Fiesioda-Hus.

Og einkum meinar Eingellinn med Ordenu Mausim, þann mesta og hæsta Hlut, þa Liotustu Kyrkiu-Svijvirding j Pavadomenum, sem er Messann. Og so er ad sia sem hann hefde viliad lioslega hafa talad,

lad, Hann mun heidra sinn eigenn Gud, Messuna, og umbreiter Viliande j sinne Rædu þessu Orde, Messa, so ei virdest hann med riettu Nafne ad nefna Messu, helldur kallar hann Mausim.

Þviad, Hvad eru Klaustrenn og Dom Kyrkiurnar annad enn Messu-Hus? (j Pavadomenum) Vegna Messunnar, so sem annars Dagligs Allra-Helgasta Offurs, eru þau upp biggd. Vegna Messunnar eru øll þau Gots þangad giefinn. Vegna Messunnar eru allar Kyrkiu Þionustugiørder, og Ceremoniur skickadar: Vegna Messunnar hafa Skolarner halldner verid vid Magt. Og hennar vegna hafa Menn til Skøla geinged, so þeir yrde Prestar. Og allt þad Kyrkiu-Braml heyrde Messunne til, og hieck þar vid, so sem segest, ad Volskurnar hallda sier vid þeirra Kong. So ad þegar ei var j Kyrkiunne Messad (so sem skiede a forbodnum Tijmum) þa voru þær Kyrkiur hriggelegar ad sia, so sem ønnur Eyde-Hus. Slijkann Ofegianlegann Kostnad hafa Menn uppa Messurnar lagt, Enn um Ordeð og Predikunar-Embætted hefur lijted, edur eckert, hugsad verid, so sem Ordid og Predikunar-Embættid er þo þad Allra-Hellsta og Sierlegasta, sem Menn ættu mest ad stunda.

Hvad er nu þa, Sa Pavans Kyrkiu-Gud, Messu-Gud, edur Gud Mausim?

Eingenn Gud er þad, nie helldur vera kann, þviad Sa Eine og Sanne Gud dijrdkast ecke med Messum, helldur lasta Menn og vanvirda þar med Vorn DROttinn JEsum Christum (þad er Gud Fodur sialfann) hid alla-hriggelegasta og hrædelegasta sem verda maa, Þviad þar med utslockvest Truenn, enn verdur j Stadenn upp sett ætrunadar-Traust eigennlegra Verka. Enn af þvi ad Skriftenn lætur stundum Skurgodenn nefnast Gude, og þad er hvørs Manns Gud, sem hann af Hiarta treyster og truer a, a hvørn hann vonar, og hvad hann elskar. Ef ad Trunadar-Trausted er nu riett, þa er Gud og sannur, enn sie Trunadar-Traustед rangt, þa er og Sa Gud Eckert.

Þar fyrer er Gud Mausim eckert annad enn eirn Rangur Þanke, og Rangt Truuadar-Traust Pavans og Papistanna, ad Messann, Kyrkiu-Þionustugiørder og Skickaner, sie ein su ægiæt Guds Þionusta, og Dijrdkan, og merkelegt Verk, og so miked Offur, hvørs Lijke eckert er, nie vera kann. Uppa þennann rangann Þanka treysta þeir, og bar hugga þeir sig vid, so sem ad være þad Sa Sanne Gud sialfur, og hallda bad fastlega, ad Gud sie so sinnadur, so sem þesse Þoottenn hefur þa heimskad. Hier hiaalpar nu Diøfullenn til ad stirkia þetta, og þessu framm ad hallda, og hier med hafa þeir under sig komed øllum Heimsins Audæfum og Rijkdoome, og um sijder Helvitskum Ellde j Helvijte. Hier ut af þessu maa lioslega skilia þad hvad epter filger.

Og hann mun þeim sem hønum hiaalpa til Mausim ad efla, þann annarligann Gud, sem hann hefur utvalid sier, miklar Sæmder veita, og þa ad Høfdingium giøra yfer miklu Gotse, og Landenu ad Verdlaunum med þeim utskipta.

A Þydversku hefde Daniel so sagt, So giører Pavenn, aller þeir sem hønum hiaalpa til ad efla, og auka hans Kyrkiu-Þionustugiørder, Eigenn Helgedoom, Guds Þionustu-giørd, og hans Messur, þa mun hann giøra ad Rijkum Cardinalum, Biskupum, Abotum, Profostum, Dom-Herrum, Prestum, Munkum, og þa Forhefia, Blessa, Stirkia, upp yfer allt, og j giegn Leikmanna Valldenu, og so utskipta þeirra a mille Kyrkiu Gotsum og Londum, j þeirra Laun, þar ad auk mun hann þeim alleina fyrerheita Himerijke, so ad hiner adrer enu Christnu munu verda ad kaupa þad ad þeim, med Gulle, Silfre, og Hæfum, hans Messu-Gude og Kyrkiu-Gude til Vegsemdar.

Þetta er Pava Lijfsagann, edur Historiann, stuttlega, enn þo med riettum Lit og Einkienne, af Daniele utmaalud, Hvørnenn hun hefur vered, þa Pavadoomurenn var j sinne stærstu Magt og Virdingu.

Ad Lyktunum mun Kongurenn moot Sudrenu beriast vid hann.

Þessu nærst epterfilger nu, Hvørnenn Pavadoomurenn skule falla og hrapa. Enn þetta eru miøg Heimugleg og Insiglud Ord, hvør ei er audvelldt ad skilia, fyrr enn þau frammkoma. So sem aller Spaadomar eru eirnen fyrer sialfum Diøflunum huldir, allt þar til þeir frammkoma. So sem Gud seger til Moysen, Audlit Mitt maattu ei lijta, Enn Mitt Bak, edur a bak Mier, maattu sia. þad er, Þa Eg er framm hiaa geingenn, og Eg hefe þad giørt, sem Eg ætla Mier, þa kanntu ad lijta epter Mier, Enn framan til, þad er, Hvørt Eg vil, hvad Eg ætla ad giøra, þad kann einginn lifande Madur ad sia. Ei ad sijdur vilium vier ødrum nockurt Til-Efne giefa, ad hugsa hier epter, med þvi ad oss þyker þetta Pavans Fall og Hrapan miøg so frammkomenn vera.

Med þvi, ad Eingellinn seger optar enn einusinne til Daniel, ad þesse Ord skulu vera Hulinn og Byrgd, þa kann ecke Egypta Lands Kongur Ptolomeus ad merkia hier þennann Kongenn mote Sudrenu (so sem fyrr) Ecke helldur kann Kongurenn mot Nordrenu ad merkia Antiochum Kong, hvørs Tijd endadest j Nidurlage hins 11. Cap: sem fyrr var sagt. Helldur med þvi, ad þesse Kongur j mot Nordrenu merker Pavann (so sem þesse Cap: allur er af øllum utlagdur uppa Anta-Christenn) þa hlytur þad epter

ad filaia, ad hans Motstandare, þad er Sa Saüe Audlege Kongur j mote Sudrenu, sie Kongur Christelgrar Kyrkiu, Christus, hvørs Anta-Christur Pavenn er, so sem Antiochus var j mote Ptolomeo Egyptalands Konge. Ei vil eg hier framm setia margt ur Skriftenne til Bevijsingar, ad Middeigis-œttenn merker j Ritningunne Gott, enn Nordred Illt, þvi þad er augliost.

Nu seger hann þvi so.

## Ad sijdurstu mun Kongurenn moot Sudrenu beriast vid hann.

Þad er, Þegar Reide GUds vill hafa Enda, og þa ed Ender og Gløtun Pavans tekur ad nœalægiast, þa mun Christus giefa honum Slag, uppveckiande nockra Gudhrædda Menn, þeir munu uppbyria ad kalla j mote honum. Enn hier med mun hann enn nu ecke falla, þad mun ei vera utann eitt Høgg, Upphaf til hans Hropunar.

Þetta Høgg (ad mijnum Þotta) gaf honum Firstur Keysare Lodvik, Hertoge j Bavaria, þa Clemens Pave hin Fimmte, og epter hann Johannes 22. hroosade sier, þad hann være Keysare, epter Frafall Keysarans Heinreks af Lucelborg, so sem þeirra Bækur (Extra vagantes) hiala. Hann sette þenuann Fròma œagiæta Keysara, Ludovik, j Bann, saklausann. Og þeir skammarlegu Ligadiktarar j Vallande voru honum so gramer, ad þeir virdtu hann ecke þess, ad hann være reiknadur j Keysara Tølu, og ei nefndu þeir hann Keysara, helldur til Smœanar, Barium, edur Bavarum.

Nu þo ad Pavar hefdu œadur fyrre bannfært Keysara, og þa margvijslega plœagad, sem voru þeir, Henrik hinn Fiorde, og hinn Fimmte, þess Nafns, so og Fridrich Firste, og Annar, og þo ad nockrer skrifadu j mote Pavanum, þa fieck þo Pavadomurenn alldrei so stora Ovirding, so sem epter Frafall Keisara Lodviks. Hann hafde hiaa sier Lærda Menn, sem var Occam, Bonagratia, og fleyre adra, þeir toku fijnlega a Baked a Johanne Pava, og enn j Dag eru skarpar Bækur til, j giegn Pavanum, enn med Lodvik Keysara. Hann aktade og sialfur ei Pavans Bann, hann reiste til Rom, og sette þar annann Pava, og hiellt Keysaralegre Virdingu.

Þvi nærst kom þad mikla Schisma, edur Tvijdrægne, Pavanna a mille, þa þrijr Pavar voru under eins, hvor ødrum j moote, um Nijtian og Tuttugu Aar (til eins Merkis, ad Pavadomsins Ende hlaut ad nœalægiast, og j sundur ad slitast) So var og Pavenn, og þad Romverska Sæted þa nockur Aar umlidenn, eige j Rom, helldur j Frackland, þangad flutt af Clemens Pava þeim Fimmta, og var þar nær Siotijge og Fiogur Aar.

Enn þetta Slag var ecke utanu Præludium og Fyrerleikur, sem Christus liet fara undann því rietta Slage sem S. Johannes Huss gaf Pavanum, og vard þar fyrer brenndur. Þetta Slag kom til af Aflœats-Briefum, til S. Peturs Kyrkiu j Rom, j allann Mœata eins og þad skiede Lutherum. Þviad a þeim Tijmum (j fra Bonifacio Attunda, sem var eirn Høfud-Skalkur, sa ed firstur villte og dœarade Heimenn med þvi Gylline Aare sem hann innsette) frœmdu þeir stor Undur og allskins Vielar med sijnum Rœadum og Aflœats Briefum.

So ad Clemens hinn Siøtte liet eina Bullam utganga, hvar inne hann bydur Einglunum a Himnum, lijka sem Gud, ecke alleinasta a Jordunne, helldur og so a Himnum, ad þeir skylldu Sœaler þeirra sem til Roms fære epter Aflœats-Briefum, og a Leidinne kunne ad andast, jafnsnart flytia j Paradijs til Eylijfrar Glede, sem þær lidu ut af Munnenum. Helvijte og Diøflunum baud hann og eirnenn um þær somu Sœaler, med slijkum Ordum, Vier vilium j øngvann Mœata hafa, ad Helvijtsk Pijna skule uppa þær løgd verda. So hafde þesse bølvada Svijvirding sig sett, ei ad eins j Guds Musteri hier a Jørdu, helldur og so uppi Himnana, yfer Einglana, yfer Himnana, og yfer Paradijs.

Nockrum Aarum sijdar, þa Pavans Aflœat voru j Lande Bohemia so Gudløstunarlega prediknd, sette Johannes Huss sig a mote þessu, avijtande einkum þessa Clementis Diøfulliga Bullam, og straffade Løstu Pavanna. Enn þetta var Høggid, Hann kiennde so, Ef Pavenn er ecke Heilagur, þa er hann ei Limur Christilegrar Kyrkiu, þad er, Sie Pavenn Skalkur, þa er haun ecke Valenkunnur. Þetta var su Høfud-Villann, syrer hvørja hann var brenndur, Og þad, ad Pavenn være Høfud Christnennar, ecke Divino jure, helldur Humano.

Samt og œadur veitte þetta Høgg Pavanum Tvær storar Ogrædanlegar Skrœamur, Su Fyrre var þad, ad Pavønum vard ofanþrunded af Himnum, og þeir stungu sijnum Pijpum j Seck, so ad þeir þordu ei þadan j fra, soddan Bullum og Skipaner lœata utganga yfer Einglana. Og GUd tok til, skammt þar epter, ad straffa þennann Ohoflegann Ofstopa og Ofdirfdar-Metnad.

Su Ønnur Skrœamann var þetta, ad epter S. Johannis Daga, kom Pavadomurenn j stora Foraktan og Fyrerlitning, Og S. Johannes Huss Nafn og Lærdom kunnu þeir med øngre Magt ad forhindra, edur nidur ad þryckia.

Þangad til, ad þetta Kall eda Hrop skielfde þann, hvørs Fyrer-Rennare Johannes Huss var, sa sem j Anda spœade þeim fyrer, þa ed hann sagde,

Epter Hundrad Aar skulud þier Gude og mier andsvara! Item, Nu steikia þeir eina Giæs (Huß heiter Giæs a Beimsku) Enn epter mig mun einn Svanur koma, þann skulu þeir ei steikt gieta. Og þetta er so skied, Huß var brenndur Anno 1416. Enn þessar Prætur um Afloats-Briefenn hofust Anno 1517. riett 100. Aarum sijdar.

Samt hefur Pavenn med allre Magt og Orku vared sig j mote þessu Slage, og situr sem ødur, hann fordæmde Kienning og Lærdom Hussi, og brennde j Elldе bæde hann og marga adra med hønum, og epter hann, uthellande miklu Blode. Þyskum og Beimskum sigade hann samann, og kom miklu Morde og Manuslage a, stad, sijnum Stole til Stirktar. Enn epter þad Concilium, eru þeir Pavar Ohrædder ordner, og hafa framed allskins Tælar med Andlegum Lienum og Simoniis, Sulldad og Saurgad sig med hvørskins Skiemdar-Løstum, og eru ordner med øllu Epicurei og Svijn, Allt þangad til þeir urdu Heimenum hvimleider, og hann fieck Hatur til þeirra, vegna þeirra Fula Skiemdar-Lijfernis. Hier um talar Eingellenn frammveiges.

## Og sa Kongurenn mot Nordrenu mun sem annar Stormur koma med Vøgnum, Riddurum og Skipa-Fiølda, og mun jnnfalla j þaug Londenn, fordiarfa og j giegnum fara.

Hann jafnar Pavanum vid eirn Kong, hvør ed med Grimmdar-Æde (so sem Antiochus) framm fer med sijnu Herlide. Og þo ad Kongar og Høfdingiar Christendomsins hafe med Verallдlegu Vallde j øllum Londum hønum hjalpad, til ad drepa þa Villu-Menn (þeir kalla) þad er þa Heiløgu Christi, sem Pavanum høfdu Sløgenn veitt, þa meinar Eingellenn hier, eirn Andlegann Herbunad, þad er, Bann og Forbod, Decreta, Bullas, og adrar Pavans Statutur, hvar med þeir Andlegu hafa hønum, med þeirra Skipum, Hestum, Vøgnum, þad er, med þeirra Rite, Bókum, og Predikunum þionad, Hvar med þeir hafa j Londenn med innfalled, giegnum reist, og yfer allt geinged med større Maat, so sem annad Vatns-Flood, hviad Bardagenn Christi, og Pavans, hans Motstødu-Manns, er eigennlega falenn og folgenn j Kienning og Lærdome.

Epterfilger.

## Og hann mun koma j þad Verduga Landed, og marger munu falla.

Þad er ad skilia, Hann mun med sijnum Andlegum Selskap og Herskruda under sig leggia, ecke alleinasta Alþydu Folk, þad sem þa er ecke j Trunne stadfast, Helldur og so þa Riett-Christnu, sem fyrr voru med þeim Villu Mønnum, og med þeim hialpudu til ad veita Pavanum Sløg, þa somu mun hann hræda og fella, þegar þeir siaa Hvørsu hann sigrast, og hvørsu krøpluglega hann nidurslær þa Villu-Mennena, og openberlega nidurbrycker Sannleikanum, hviad hann hefur Fiølda Skipa og Vagna, þad er ad skilia, hann hefur noga Skrifara, Uthrópara, og af þeim eru allar Atter fullar. Þannenn hefur nu Pavenn þung Høgg feinged, enn er þo ei enn ad hellдur fallenn.

## Enn þesser munu af hans Hende frelsader verda, Edom, Moab, og Frumburder Sona Ammons.

Eins so sem j þessum Cap: þad Kongur Sudurættar og Nordurs merker nu ecke Ptolomeum og Antiochum, so merker Edom, Moab, Ammon, ecke nu þær Þioder sem forduм Daga voru þær. Þviad epter Holldenu hafa þær fyrer laungu umbreytst, og eru orduer Saraceni og Tyrkiar. Þvi hliotum vier ad hugleida Þyding og Merking þessara Orda, lijka sem vier giørum vid þau Ordenn, Sudur og Nordur.

Þriggia-Handa Menn eru þeir, hvøria Pavenn mun ecke villa nie fella, þeir eru, og munu blijfa Christeleg Kyrkia, under þeim Foreydara Anta-Christenum, þviad Heiløg Christne, edur Kyrkia, hlytur ad vera allt til Verallдarennar Enda.

Hiner Firstu eru Edomitar. Edom merker Raudann edur Raudlitadann, þesser Raudlitader eru þeir Heiløgu Martyres og Pijslar-Vottar, sem med Stodugleika hafa af Pavanum, Biskupunum, og sierdeilis af þeim Blod-þyrstu Munkum Predikunar-Reglu (þeir ed all marga aflijfad hafa) læted sig drepa, brenna og j Vatne dreckia, um allann Heimenn, allt þessa Dags. Þesser eru miøg marger.

Þeir adrer eru Moabitar. Moab merker af Fødur edur Fodurlegur, Paternus. Þad eru þeir, hier og þar, ut um allann Heimenn, sem ei eru fallner fra sijnum Fodur Christo, þo ad eige hafe þeir almenneleger Predikarar vered. Og einkum þeir ed um sijder allt þeirra Trunadar-Traust høfdu j Christi Dauda, og ødudust, so ad þeir treystu ecke uppa Pavans Maursim, nie uppa hans Afloats-Brief. Þvilijka hef eg marga sied, enn fleyre heyrt, bæde af Munkum og allra-handa Stiettar Mønnum. So giørde S. Bernhardus, þa hann visse, ad hans Stund var komenn, þa gleymde hann sinne Ordu, og alls Pavans Mausim, og fal sig j Christi Pijnu, segiande, Christus hann eignast Himnarijke med Tvofolldum Riette. First ad Erfd, af sijnum Fodur, so sem Hans Eylijfur Einka Sonur, þennann Riett a hann sialfur. J Annann Maata hefur hann þad verdskulldad og forþienad

þienad med sinne Pijnu og Dauda, þennann Rjett hefur hann giefed oss, þviad hann hefur pijnst vorra vegna. Slijka Bernhardos og Moabitas, edur Fødurlega Christna, hefur GUd marga sier geymt (j Pavadømenum) so sem, a Døgum Eliæ, þau Sio Þusund Manna a medal Israels Lyds.

Þeir Þridiu, Principium filiorum Ammon, þad er ad skilia, Þeir Frumburder, þau Smaa Børn a medal Folksins. Moab og Ammon voru Brædur, so vilia þesser Ammonitæ Brædur verda þeirra Fødurlegu, Fraterni. Þessa læt eg merkia, øll þau Ungu Meinlausu Børn, sem Endurgietenn verda fyrer Skijrnena, og andast aadur enn þau kunna ad þeckia edur Skilning hafa a Pavans Mausin, edur hann ad stirkia, edur veikia, eins og þeir Edomitæ og Moabitæ giora. Þar fyrer nefnast þeir Frumburder og Syner med Folkenu, Þad er, Medal Guds Folks j Christnenne, nylega Endurfædder fyrer Skijrnena. Þessa hefur Anta-Christurenn ecke kunnad ad fella, nie villa. Þetta eru þær þriaar Ordines Heilagra, Martyres, Confesslores, Virgines.

J Giegn þessum Þriggia-Handa Þiodum þa setur Eingelenn adrar Þriggia-Handa Þioder, þær ed Anta-Christurenn mun ræna, Egyptsker, af Libya, og Morlendingar. Þessar Þioder eru hvør j Grend vid adra, og eru Naabuar, aamint so sem fordum Tijd Edom, Moab, Ammon. Yfer þessum Þiodum drottnade Antiochus alldrei, ei helldur Pavenn. Þvi hliotum vier enn nu med ødrum Hætte, og Andlega, ut ad leggia Nøfn þessara Þioda, þar til einhvør annar kiemur med betre Þyding.

Þar fyrer skiptum vier nu Pavans Lyd j þria Stade, Egyptsker skulu vera þeir Hærstu, Sierlegustu, Rijkustu, Megtugu Kongar, Herrar og Høfdingiar, hvørier ed hafa Valld og Veralldar Audæfe, og nockud Agiæter vilia synast. Þviad Egyptaland var alla Tijma, a medal annara, hallded eitt Megtugt og aagiætt Rijke. Lybii, þeirra Naabuar, skulu þeir vera sem þessum eru nærster (ad Vallde og Virdingu) so sem ad eru Boraarar og Lærder Menn, og adrer þeir sem nockud Alit hafa. Blaalendsker skulu vera Alþydu-Folk, Kot-Karlar, Þrælar, og adrer Lijtels-haattar Muga-Menn, sem einskis eru virdande.

Þetta lætur Pavenn sier ecke nægia, þad hann alla þessa hefur svelgt, og til Gløtunar leidt, med Lijfe og Saal, med sinne Mausin, Hans Hønd finnur og einnenn Siodu þeirra, og Hyrdslur (seger Eingelenn) og leitar vid, ad hann faae drottnad yfer þeirra Fiaarsiodum, Gulle, Silfre, Dyrum Gripum, Þad er, Yfer øllum þeirra Eignum, so ad hann komest yfer þad allt saman, þad mun hann giora (seger hann) med þessum Hætte.

Hann mun sijna Hønd utsenda j Løndenn, og Egyptaland mun ecke undann hønum komast.

Hier koma framm Pavans Legatar a Latere, Cardinalar, Sendebodar, sem sender eru til Konganna og Høfdingianna, Jaa, þeir sem hann sender og skickar ut j Løndenn og Rijkenn, Kongana ad pretta, og þa under sig ad leggia, so ad þeir þione hønum med Lijf og Gots, beriest fyrer hann, og hønum skeinke Lønd og Borger, og storar Gersemar.

Þvi nærst vitiar hann þeirra med sijnum Bullis, Aflaatum, Skriftar-Briefum, Leyfis-Briefum, med hvørium hann leyfer og selur þeim Naad, Frelse, Eigenn-Konur, Egg og Miolk, Kiøt og Smiør, Messur og Synder, Hreinsunar-Elldenn, Helvijte og Himerijke, Tyrkiann, Gud, og Diøfulenn, og siaalfann sig (þvi Hvør er sa sem allann þann Kaupskapar-Haatt kann upp ad telia?) Rænande so og med Vallde stelande, so sem være hann DRottinn allra Hluta, Dro so under sig Fie og Fiaarsiodu, þurkar Munnenn, og þykest vel hafa sijslad. Þetta hefur hann hellst og mest aastundad ad fremia med sijnum Naadum og Aflaats-Briefum, sijdann hann fieck Sløgenn (sem fyrr seger) so ad hann þess fastara og stødugliega sitie. Af þessum Texta er þad almennelegt Maaltæke komed, a medal Christenna Manna, Einkum þetta, ad Anta-Christurenn hann skule upp grafa Fiaarsiodu Jardarennar. Jaa, Eg hygsa hann hafe þaa ølijst funded, og uppgrafed, so ad Heimurenn hefur ecke epter Helftena af sijnum Audæfum. Þetta og allt Annad, ef þad være med minkre Maalsnilld utbreidt, og med Lit og Einkienne utmaalad, af einhvørium Mælsku-Manne, þa mætte vel siaa Hvørsu hrædeleg Svijvirding þad Pavadømurenn sie, Eg hefe ecke utann uppkastad þetta ad eins til Skilnings og Understødu Daniels Orda.

Framnveiges epterfilger.

Enn eitt Kall mun skielfa hann, ur Austre og Nordre. Og hann mun med mikellre Grimmd utfara, viliande afmaa og fordiarfa marga.

Hier kiemur um sijder (med Guds Hiaalp) Pavans Fall og Forglatan, þviad ei fiell hann fyrer aadurgreindum Høggvum, Þo ad hann feinge Blok nockur, hønum til Jdrunar-Aminningar, hvad þo til forgiefens var. Nu kiemur yfer hann eingenn Hernadur, eingenn Lids Afle, eckert Strijds-Folk, eingenn sa ed uppa hann høggve nie slaae, Helldur Einfallt Hroop edur Kall, þar af skielfest hann, og verdur so hræddur, ad hann fellur nidur. O GUd! Hvad ertu Fur

tu Fyrdanlegur j þijnum Verkum? Þesse Andstyggd sem alla Konga hefur under Footum troded, Gllde siaalfum dyrsdest drambsamlega j moote ad tala, hann hrædest nu, og hrapar nidur af einu litlu Hliode edur Roddu. Þu hin hrædelega og mikla Magt! Hvørnenn hefur þu so staded a fall-volltum Grundvelle? ad þu verdur um koll blaasenn med einum Andar-drætte? Þesse Ord Danielis utleggur S: Paall 2 Theß. 2. DROTTinn JEsus mun jhel slaa hann med Anda sijns Munns. Þetta er nu sa seinaste Tijme vorra Daga, a hvørium Evangelium hliomar og hroopar j moote Pavanum, so ad hann er Raadalaus ordenn, og veit ecke hvad hann skal til giøra. Concilium kann hann ecke nie vill lijda, hann vill ei opennberlega, og j Lioseñu, laata um Sannleiksins Efne høndla nie ræda, hyggur sier alleinasta med Magt nidur ad kefia þetta Rijke. Hañ dregur ut med miklum Grimðar Huga (seger Daniel) medur sijnum Vidurbunade, med sijnum Andlegum Selskap, med Legatum og Bullum, med Briefum og morgum Smaanar-Bookum, vill marga deyda og drepa, Uppæser Keysarana, Kongana, alla Diøfla og Vonda Menn, og allt þad sem hann kann ur stad ad hræra. Viliann vantar hann ecke, hann giørde þad giarnann, Enn hans Ende er komenn. Eingenn giętur hiaalpad hønum, seger Daniel, Þad Kall er orded so miøg stort. Hvad til sinnar fyrre Tignar kiemst Pavenn alldrei aptur, og hans Papistar lijda hønum þad ecke, so sem vottar Apocalypsis 15. Cap: Og hlytur so fyrer utan Hønd og Sverds-Slag sundur ad meriast, Dan. 8. So sem skiede hans Fyrermind Antiochum.

Enn þad, ad þetta Hroop kiemur ur Austre og Nordre, Þad er so ad skilia, Ad þetta Evangelium þad kiemur ad ofañ, fra þeim sem er Sa Sanne Oriens, Austurœtt edur Uppgangur. Þvi eingenn maa med Sannleik segia, edur hrosa sier þar af, ad þesse Lærdomur sie frammkomenn ut af hans Høfde edur For Þeinktu Raade, nie Vilia, Aller erum vier ovarlega og oforhugsad komner j þetta Efne. Og Þad hefur skied oss, so sem Esaias seger, Eg em fundenn af þeim sem ecke leitudu Mijn, og birtest þeim sem ecke friettu ad Mier. Hvad eg (seger Martinus) sem var og eirn af þeim Firstu, hugsade langt fra þessu, og leitade miklu Annars, þa eg took First til ad skrifa, sem er, Eg ovijtade ad eins Misbreytne Aflaatsins, enn ecke Aflaated siaalft, miklu sijdur Pavann siaalfann, edur eitt hans Haar. Hvad eg þeckte þa hvørke Christ nie Pavañ. Þo er þetta komed ur Nordre (seger hañ) Þad er, ur eigennlegu siaalfs Pavans Rijke. Hvad vier vorum siaalfer j þann sama Tijma Papistar og Anta-Christner, haalfu meir enn þeir.

Hann mun planta Land-Tiallded sinnar Hallar a millum Tveggia Siaafar-Hafa, vid þad Heilaga Fialled.

Jerusalem liggur a mille Hafsins Mikla og Dauda Hafs. Enn miklu helldur liggur Rom a millum Tveggia stoorra Siaafar-Hafa, sem kallast Mare Tyrrhenum, og Adriaticum. Og mier virdest Rom vel meiga kallast eitt Verdugt Heilagt Fiall, hvar hvijla margar Þusunder Guds Vijslar-Votta, og j Firstu stood þar Christeleg Kyrkia j sinum feaursta Blooma, Þar hafa og giørst Mikler og Agiæter Tilburder, allt þar til Diøfullenn sette þar sitt Sæte. Nema nockur vilie allt þetta uppa Andlegann Haatt utleggia, j þann Maata, ad Pavenn yfer þvi Verduga Hellaga Fialle, þad er, Hann hefur sett sig j Christendomenn, so sem eirn GUD, og plantad sitt Rijke med sijnum Decretis, og Svivirdingar Kienningum. Hvad Kienning kallar Christur Plantan. Matth. 15. Øll su Plantan sem Minn Himneskur Fader plantade ecke, hun skal upprætast.

Mille Tveggia Siaafar-Hafa.

Þetta maa skiliast ut af Christelegre Kyrkiu, Ad þetta Heilaga Fiall ligge a millum Tveggia Siaafar-Hafa, Þad er, þesse Verolld og Helvijte. So ad Hafed Dauda merke annann Heim, þar þeir Ogudlegu fyrerfarast med øllu, enn sa Lifande Siorenn merker þennann Heim. Enn Christenndomurenn lifer ei epter Veralldarennar Hætte, deyr ei og ecke epter þetta Lijf, geingur framm so sem a Mid-Gøtu, lifer j Trunne og Andanum Christi.

Enn vilie nockur, ad þesse Tvø Hof merke Pavans Stool edur Sæte, enn ecke þad Helga Fialled, þa er Þetta Meiningenn, Pavenn drottnar yfer Liføndum og Daudum, med sinne Plantan, edur Decretis, Hvad med sijnum Mausim (edur Messu) hiaalpar hann øllum Liføndum, hier a Jordu, og øllum Framlidnum sem eru j Hreinsunar-Ellde, Hann nefner Plantan, hvad eina Paradijs, allskins Veralldar-Sælu, hefur Pavenn upp sett j Rom, edur Christelegre Kyrkiu, og hefur þar øll Heimsins Andæfe, Valld og Virdingar, frij og friaalslega epter sijnum Vilia.

A þeim Tijma mun sig upp taka Sa Mikle Høfdinge Michael, sem med Sonum sijns Folks stendur, hvad þad mun slijk Hørmungar-Tijd vera, sem ecke hefur vered j fra þvi ad Menn tooku ad vera, allt til þess Tijma.

Enn þo Michael sie eitt Eingels Nafn, þa laatum vier þad hier, eins sem j Apocalypsi, merkia Herrann JEsum Christum siaalfann, hvør ed hier a Jordu, med sijnum Einglum, þad er, Predikurum, berst j moot Diøflenum, med Evangelio, hvad hann

kallar,

kallar hann þann Mikla Hofdingiann. Þesse hinn same hefur nu teked sig upp, og stendur med þeim Christnu, og huggar þa med Naadarinnar Orde. Þviad hier til hefur vered Sa Hrædelegaste Tijme sem nockurn Tijma hefur a Jørdu vered, so sem Christus sialfur setur framm þesse Ord, Matth. 23. Og hefde þesser Dagar ecke styttst, og hefde ecke linnt, þa mun eingenn Madur verda Saaluholpenn, Hvørke Edomitar, nie Moabitar, nie Ammonitar, Þviad j Val-Lande, Rom, og annar-stadar, tooku Menn til ad giøra Spott af Trunne, so sem Epicurei, og skijrdu ecke meir Smaa-Børnenn. So laa bid sialft, ad bæde Skijrnenn og Sacramentid, og Orded, være ad mestu utslockt og eingenn Madur hefde ordid Saaluholpenn.

Þviad ecke meinar hann hier lijkamlegar Hørmungar, hvøriar ed miklu þyngre og stærre hafa vered j Foreydslu Jerusalem, Roma-Borg, og j ødrum Løndum, og Borgum, helldur meinar hann Saalarinnar, edur Andlega Hørmung, hvør ad merkist fyrer Christi Pijnu. Þvi lijkamlegar Harmkvælingar hafa þeirra Enda med Lijkømunum. Enn hier er þetta j Huse, ad annad hvørt forgange Kristnenn, eda blijfe, hvør ed a Tvo Vega er yferfallenn af Anta-Christenum, First med Ogudlegre Fyrerlitningu GUds Ords og Sacramentanna, þvi nærst med hørmulegre Ørvinlan Samvitskunnar, þar ed eingenn Huggun var ut af GUds Naad, helldur hørmuleg Kvøl og Pijna eigennlegra Verka og Goodgiørda, hvar med þeir plaagudu Christna Menn (af hvørre Plaagu Samvitskunnar Ogudleger og Heidner Menn eckert vita) Þvi var nu Sa Tijmenn komenn, ad Michael tæke sig upp, og liete ecke Christnena med øllu fyrerfarast, sem ad mestu var utslockt, Helldur huggade hana og samansafnade henne, fyrer sitt Heilsusamlega Naadarennar Ord.

Frammveigis stendur so.

**Og marger, af þeim sem j Molldu Jardar sofa, munu upp vakna, sumer til Eylijfs Lijfs, sumer til Eylijfrar Smaanar og Skammar. Enn Kienne-Fedurner munu lysa sem Himensins Geislar, og hiner sem mørgum vijsa til Riettlætesins, so sem Stiørnur um Allder og ad Eylijfu.**

Eingellenn hradar sinne Rædu til hins Sijdarsta Dags, þar fyrer, þo hann hafe margt ad ræda ut af Michaelis Embætte, þa skundar hann j sijnu Maale til Enda Veralldar, og talar um Upprisu þeirra Frammlidnu: Enn jafn snart hverfur hann aptur til fyrre Rædu, og talar um Kienne-Fedur og Predikara, ad þeir skule skijna so sem Geislar Himens og Stiørnur, og snua mørgum aadur enn Frammlidner upp rijsa. Alijka sem Daniel hier fyr, j 9. Cap: seger fyrer Foreydslu Borgarennar, fyrr enn hann hefur ut talad um þa Sijdursta Vikuna, hvør þo hlaut aadur ad vera umlidenn, enn þad Borgenn være nidur brotenn. Sumer Menn vilia, ad þesse Upplysing Kienne-Fedranna sie su Okomna Dijrd Annars Heims, um hvøria S. Paall talar, 1 Cor. 15. Þad er og ad vijsu satt, enn vier laatum þad merkia hier Gagn og Naudsyn þeirrar Sorgfullu Guds Christne.

**Marger (seger hann) munu uppvakna.**

Þviad a Ytsta Deige munum vier ei aller upp rijsa, so sem S. Paall seger, 1 Cor. 15. Þviad þeir sem a þeim Deige finnast lifande þeir munu hvørke andast nie upp rijsa, helldur a Augabragde umbreytast, og upp ryckiast j Skyenn mots vid Christum. Þo munu marger, Þad er, Mestur Fiølde mun verda þeirra sem Frammlidner edur sofande eru. So ad Christur sie (epter Truarennar Ordum) Domare bæde Lifande og Daudra. Og hier siaum vier, ad upp fra þeim Tijma, þa Pavenn er opennberadur, þa er eckert vijsara ad vona edur vænta, enn Enda þessarar Veralldar, og Upprisu Frammlidenna, Hier er Ritningenn ute, hier hafa aller Spaadomarner Enda.

Frammveiges stendur so.

**Og þu Daniel! Byrg þesse Ord, og innsigla þessa Book, allt til hins Sijdarsta Tijma, Marger munu komast þar yfer, og mikenn Skilning finna.**

Hier seger Eingellenn lioslega, ad þesse Danielis Book skule vera Innsiglud (þad er, Hulenn og Oskiliande) þo ecke eylijflega, helldur til hins Sijdarsta Tijma, þa skule hun opnast, og giefa Mikenn Skilning. Og þad er vor Astundan, sem fyrr er sagt, Þviad Spaadomarner kunna ecke fullkomlega, nie med øllu, ad understandast (edur skiliast) fyrr enn þeir eru frammkomner, Enn þegar þeir eru fullkomnader, þa bera Verkenn þeim Vitne. So sem Christus þa ed Firsta opnade Lære-Sveinanna Hugskot, Luc. 24. epter sinu Dauda, so ad þeir skilldu Ritningarnar. Adur sagde hann til þeirra, Þetta sege Eg ydur, uppa þad, ad þa þad er skied, ad þier trued þvi.

**Og eg Daniel saa, og sia þu! Þar stoodu Tveir adrer, Einn þessumeigenn Vatnsins, hinn Annar Hinumeigenn.**

Um þessa Tvo talar hann ecke meir, hvørier þeir sie, edur hvad þeir tale, edur giøre, Utan Þad hafe vered adrer, Þad er ecke sa same Eingellenn sem vid hann talade. Maa vera, vered hafe þeir Tveir Einglar, einn Persa Hofdingenn, annar Grickia, um hvøria hann talade j 10. Cap: Hvørier ed Israels Folke Hindran veittu hia Kongunum. Þesser standa, og slijkar Hindraner eru jafnann j hia Kongum, allt til Veralldarennar Enda, Einn til Austurs, Annar til Vesturs,

sturs, so ad GUds Ord og hans Kyrkia skule ecke Hafa Frammgang jafnlega, helldur so sem sialfur hann ut þyder þad hier epter, segiande.

**Marger munu verda hreinsader, klaarader og reynder, og hiner Ogudlegu munu jllsku-samlega breyta, og þeir Omilldu munu þad ei akta, Enn þeir Skinsomu munu þess giæta.**

Þviad, hvørsu hreinlega og kroptuglega sem Evangelium framm geingur, og hvørsu sem Christeleg Kyrkia er stirk, Þa hliota þo ad vera Villu-Men og Fals-Kienne-Fedur, þeir ed hana plaage, so ad þeir Reyndu verde opennberer. Og slijker Villu-Menn og Fals-Kienne-Fedur koma sier einkum framm hia Kongum og Høfdingium, Þannenn blijfa nu Villu-Menn allt til Enda.

**Og hann sagde til þess sem j Lijnenu var klæddur, hvør ed yfer Vatnenu stood, Nær vill Ender verda a þessum Svijvirdingum?**

Þesse Madur j Lijn-Klædunum, er Eingell (Gabriel) sa sem hingad til hefur talad, sem segest j 10. Cap: Enn hvør sa sie sem til hans seger, Nær vill Ender verda? og etc. Þess gietur hier ecke. Enn þad er ein Raust og Klogun, under Personu GUds Christne, hvør ed af Harme Hugar so klagar, og seger. GUd hiaalpe! Nægest þad ecke, ad Anta-Christur Christelega Kyrkiu so hrædelega, og hardt nær j Grunn fordiarfar? Nu hun er sem naumast a Fætur komenn, og endurlijfgud fyrer Michaelem, Nu koma Villu-Menn, Sacramentarii, Endurskijrarar, og adrer Villudoms-Andar, og uppbyria enn nu Svijvirdingar, Nær vill um sijder verda a þessu Ender?

Hier ad auk rijker Agyrnd og Fiedraattur so miøg, ad uggande er, þad Evangelium mune af Hungre farast, og Ordsins Þienarar ei meir virdter verda, enn Loth j Sodoma, og Noe fyrer Floded. Þviad nu j Verølldenne vilia bæde hærre Stietter og lægre, bæde Yfermennerner, og þeir Undergiefnu, eckert annad sia nie heyra, utan Agyrne, Fiedraatt og Sialfræde. So ad eflaust er sa Tijme komenn, um hvørn Lyra, og fleyre adrer hafa talad, Ad epter Anta Christsins Fall mun Verølldenn verda ølldungis Athugalaus, og segia, Þar er eingenn GUd!

Hier sver Eingellenn eirn Eid, og talar miøg alvarlegum Ordum, uppa þad, ad vier ecke skielfunst, nie hrædder verdum fyrer Villu-Mønnum og Pavanum, og seger.

**Þad skal vera eirn Tijme, Tveir Tijmar, og eirn haalfur Tijme, Og nær ed Sundurdreifing þess Heilaga Folksins hefur Enda, þa skal allt þetta skie.**

Þesse Ord heyrer Daniel og skilur þau ecke, og bidur um Utskijring a þeim. Enn hann fær þad Andsvar, ad þau skule blijfa Læst og Innsiglud allt til hins Sijdarsta Tijma, Þa mune hann uppstanda j sinu Hlutskipte, þad er, hans Book skal þa gagna Christelegre Kyrkiu, epter sinne Gaafu, Enn a medann skule hann hvijlast, og hans Book skal ecke skilenn verda.

Nær ed þesse Tijmenn, Tveir Tijmarner, og haalfur Tijmenn skule Enda hafa, og nær ed Villu-Menn mune af laata ad nidur briota, sturla og eyda GUds Christne, þad faaum vier ecke ad vita, fyrr enn vier siaaum þad, Hvørsu ad Christnenn, Su auma og litla Hiørd, helldur sier med einum Huga vid Orded, Og þeir Omilldu og Heimurenn lætur sier þad leidast, og lifer epter sijnum Gyrndum, og skeyter ecke um Heilaga Ritning. So sem ad sia mia a allmørgum, þeir ed so lifa, so sem ei akte þeir Guds Ord og Ritningena so mikels, ad þeir kunne þar inne ad vera Villumenn, edur vel Christner. Þegar þad kiemur, þa er þad ute, so sem Christus seger, Þegar Mannsins Son kiemur, meinar þu hann mune finna Trú a Jordu? So mun þa þreyngia ad Christelegre Kyrkiu, ad mestur Fiolde mannligs Kins mun stunda ei annad enn Agirne, Fiedraatt, Okur, Ofneytslu, og Ofdryckiu, og adrar Holldsins Vellystingar, so sem skiede fyrer Vatns-Floded.

**Og j fra þeim Tijma, nær þad Dagliga Offrid er afteked, og Svijvirding Foreydslunnar er upp sett, eru Þusund, Tvo Hundrud Nijutijger Dagar. Sæll er sa sem bijdur og naaer Þusund, Þriuhundrud Þriatijger og Fimm Døgum.**

Ef skylldu þetta vera almenneleger Dagar, þa talade Eingellenn um þa seinustu Viku, j hvørre midri þad Daglegt Offred var af teked, fyrer Postulanna Concilium, Actor: 15. Og Keysarenn Caligula sette sijna Svijvirding j Musterid. So giøra Þusund, Tvo Hundrud Nijutijger Dagar so nær haalfa Viku, sem epter er, sem er haalft Fiorda Aar. Epter þann Tijma utbarst Evangelium a medal Heidingia, fyrer S. Paal og Barnabam, Actor: 13. Og hefur þa Eingellenn med þessum Ordum mirkva og Oskiliande giørt sina Rædu, sleingiande til samans þeim Firsta og Seinasta Tijma, og so sem hverfande aptur til ad tala um þær Sio Vikur, þa hann hefur uttalad um þann okomna Tijmann, allt til Verall-

darennar Enda-tekta. Enn ef þetta er Eingelleg Daga-Tala, þad er, Ef eirn Dagur skal reiknast fyrer eitt Aar, so sem j 9. Cap: var giørt, þa vilia þeir Þusund, Tvo Hundrud og Nijutijger Dagar taka allt til hins 14 Aars Keysara Lodvijks, hvør ed af Pava var Bannfærdur. Enn 1335 Dagarner þeir taka til Tuttugasta og Þridia Aarsins Caroli hins Fiorda, 7 Aarum fyrer þad stoora Schisma Þrigaia Pava, edur 42 Aarum fyrer þad Concilium j Costnitz.

Enn eg villde helldur þetta Daglega Offrid ut leggia uppa Andlega Meining, og laata þad merkia þad Heilaga Evangelium, hvørt ed jafn-ramt Trunne og Christelegre Kyrkiu blijfa skal allt til Heimsins Enda. Enn skie maa ad Heimurenn verde soølldungis Ogudlegur, ad ei sie i øllum Heime nockur Predikunar Stoll, þar Guds Ord kienneſt openberlega, og ei verde adrar almennelegar Rædur enn Ogudlegar Svijvirdingar, og Evangelium sie ad eins j Husum og Hybylum hia Husfedrum geymt og vardveitt.

Og þetta sie sa Tijmenn sem var a millum Orþanna Christi a Krossenum, Consummatum est, og, Pater! in manus tuas commendo Spiritum meum. Þviad so sem Christur lifde litla Stund epter þad þa hann hafde sagt, Consummatum est, so kann og skie, ad Christeleg Kyrkia vare og blijfe nockra Stund, Evangelio openberlega afløgdu. Og so sem Daglegt Offur Gydinga vard j þeirre Siøundu Viku aflagt fyrer Postulanna Concilium, enn varde þo þar epter allt til Foreydslu Jerusalem, og var hallded af Postulunum siaalfum, þa þeir villdu (þo naudsinlaust) So maa og skie, ad Evangelium verde ecke openberlega j Kyrkiunum kiennt og Predikad, enn geymist þo j Husum og Hybylum, hia Gudhræddum Mønnum.

Slijk Hørmung skal ecke leingur vara enn 1290. Daga, þad er nær haalft Fiorda Aar, þviad fyrer utann openberlega Kienning (Guds Ords) kann Truenn ecke ad vara leinge, med þvi vier siaum a þessum Tijmum, ad Heimurenn vesnar og mannspillest a einu Aare. Þeir seinustu Þusund, Þriu Hundrud, Fimm og Þriatijger Dagar munu vera ølldungis Iller, so ad j Husum edur Hybylum mun tranðlega nockur Tru fundenn verda. Þvi seger hann, Sæll er sa sem stendur til þess Dags, So sem villde hann talad hafa þan Ordenn sem Christus sagde, Þegar Mannsins Sonur kiemur, Meinar þu ad hann mune finna Tru a Jordu?

Um þetta haalft hid Fiorda Aar, hafa so nær aller Kienne-Fedur rædt, og allar Bækur eru þar af fullar, utan þeir hafa þau uthydt uppa Anta-Christi Rijke, Hvad þo, epter Skickan Textans. Daniel ecke hafa vill, hvør ed frammveigis spaar fyrer, Hvad skie skal epter Anta-Christsins Hrapan, og setur þeita haalft Fiorda Aar epter Michael, og epter Eid Eingelsins sem yfer Vatnenu stood.

Og þo ad sumum þyki þesse Uthyding vijsa til, nær Sa Sijdarste Dagur koma skal (hvad þo Christur fyrerbydur ad vita) Actor: 1. Og i Gudspiallenu, þa er þad langt fra. First fyrer þvi, ad þo þad Evangelii Offur verde almennelega af teked, þa mun þo eingenn gieta merkt þad Aar, og þann Dag, nær þad tekur ad skie, þviad þad kann ecke j øllum Stødum under eins af teked ad verda.

Þvi nærst, þo Menn vite nær slijkt skal uppbyriast, þa eru ad auk þessara 1290 Daga enn adrer 1335 Dagar skickader, ad hvøriumm eingenn Madur mun Gaum giefa j øllum Heime. Snøgat ad segia, mijn Meining er, ad eingenn mune openberlega hugleida nie gaumgiæfa þessa 1335 Daga, fyrr enn a Sijdarsta Deige, þa þeir eru framkomner, utan Gud (kann vera) uppveke einhvørn Noa, sa sem þa Daga reikna kann, og glögglega fyrer ad segia.

Eg læt mier nægia, ad Sa Sijdarste Dagur er okomenn ad eins, þviad þaug Teiknenn sem Christur og Postularner, Paulus og Petrus, hafa fyrer sagt ad skie skyllde fyrer þann Dag, þaug eru nær øll frammkomenn. Vared er utsprungid a Trianum, Ritningenn grænkast og blomgast, þar liggur oss eingenn Magt a, þo ad vier vitum ecke so gløggt þann Dag, Sa ed kann hann kome framm med betra, þad er vissulegt, ad Ender allra Hluta er nælægur.

Hier ut af siaum vier, hvad mikils-haattar og merkilegur Madur ad Daniel hefur vered, bæde fyrer Gude og Heimenum. First fyrer Gude, j þvi, ad hann, framm yfer alla Propheta, hefur hast Sierligar Spaadoms-Sagner, Einkum þetta, ad hann ecke ad eins spaer fyrer utaf Christo, so sem hiner adrer Spaamennirner, helldur þa ækvedur hann Tijmana og Aarenn, og frammsetur þad so gløggliga. Somuleidis þa saman tekur hann og so Forkunnarvel, og med stuttu Maale talar um þaug Einvallds Konungarijkenn, sem vera skulu um þann ækvedenn Tijma til Christum, hvad epter annad so skickanlega tiaandi þeirra Giørninga og Lijfsøgur, ad mann kann ecke ad fara villt um Hingadkomuna Christi, nema Vijsvitandi og Viliandi, so sem Gydingarner. Hann frammsetur og so, j fra þeim Tijma, allt til hins Sijdarsta Dags, hvørnenn þvi Romverska Rijkinu skule vegna, og hvad vid skule bera j Heiminum, so skickanliga, ad ei þurfum vier um þann Sijdarsta Dag ad villast, nie oforvarandis laata hann yfer oss koma, so sem ad giora vorer Epicurei vijsvitande.

Þar fyrer virdist mier, ad S. Petur hafe sierdeilis meinad Danielem, þar ed hann so seger, 1 Petri 1. Spaamennerner hafa rannsakad, a hvøriumm, edur hvilijkum Tijma Andinn Christi tilteiknade, og etc. (Hvøriumm) Þad kallar hann, ad hann so gløggt og giørla ækvedur Tijmann, syrersetur og seger, Hvørsu langt

langt, og hvorsu morg Aar lijda skulu þangad til ad, þad kiemur framm sem hann fyrer spaar (Hvilijkum) Þad kallar hann, Ad hann so gloggliga utskrifar, Hvornin þa skule tilstanda j Heiminum, Hvor þa skule Einvallds-Stiornina hafa, eda Hvar þa skule vera Keysara Valldid. So ad hann seger fyrer, ecke ad eins Tijmann, hełldur jafnvel Athæfe, Skickun og Tilburdi sem skie skulu a þeim sama Tijma, þvad hid sama frabærliga stirker vora Christeliga Tru, og giorer vorar Samvitskur stadfastar og stodugar, Med þvi ad vier siaaum þad frammkomed fyrer vorum Augum, sem Daniel hefur j sinne Book liosliga og skijrliga so fyrer langre Æfe skrifad og fyrer-spaad.

Þviad Daniel fyrer spaar og setur aakvedenn Tijma, nær Christus skyllde koma, og nær Upphaf hans Rijkis (sem er hans Skijrn og Predikunar-Embætte) skule skie, sem er 510 Aarum epter Cyrum Kong, Dan: 9. Cap: Og ad Rijke þeirra Persa og Grickia skule þar ute vera i Heimenum, enn Romverska Rijked skule þa vera Megtugast, Dan: 7. og 9. So ad Christus hlaut vissulega ad koma j Tijma þess Romverska Rijkesins, þa þad stod med sijnum besta Bloma, hvort Jerusalem og Musterid skyllde nidur brióta, Med þvi, ad epter þad sama Romverska Rijked, skal eckert annad Rijke koma, helldur skal Heimurenn med þvi Enda hafa, so sem Daniel fyrer seger, 2 og 7 Cap.

Fyrer Heimenum hefur Daniel og so vered miog mikels-haattar Madur, þviad vier siaaum hier, ad hann hefur þeim Tveimur Firstu Kongarijkiunum, sem einn ædstur Hofuds Madur styrt og stiornad. Sem villde GUd segia so, Eg skal giefa þessum Rijkium Stiornara, þo þar laate eg mijna Jerusalem, og mitt eiged Folk foreydast. Og þo ad hann hafe ecke Kongs Nafn haft, nie helldur stor Gots edur Virdingar þar af hloted, þa hefur hann þo Kongleg Verk, Giorninga og Embætte haft og framed. So sem Veralldarennar Haattur er, ad þeir sem j Hofgordum allra mest ervida, þeir hafa minnst, og hiner sem eckert giora faa þad mesta, epter Gudspiallsins Maalshætte, Einn saaer, enn annar skier upp, Joh: 4 Cap: Jaa, þad enn er þyngra, hann hlaut ad hafa j sijn Laun, Hatur, Ofund, Haaskasemder og Offokner, so sem Heimurenn plagar alla Þionustu og Velgiorninga med slijkum Launum ad umbuna.

Enn þetta skadar Daniel ecke Par, hann er Gude þvi kiærare, og hann launar honum þess rijkuglegar, og helldur hann fyrer Kong þeirra j Babylon, og Persia. Þviad Gud metur og dæmer epter Verkunum og Avextenum, ecke epter Mannvirdingum nie Nafne. Þar fyrer er Daniel raunar sa riette Kongur j Babylon og Persia, þo ad ecke bere hann Konglegann Titel edur Nafn, og þo ei hafe hann Rentu þar af, utan alleinasta Motgang, og Allskins Haaskasemder. Siaadu! So kann Gud ad veita Huggun og Heidur sijnum Herteknum Gydingum, ad hann af einum Borgara Syne þeirrar Foreyddu Jerusalem, giorer Tvofalldann Keysara j Babylon og Persia-Lande.

Snoggt ad segia, a medal Abrahams Sona hefur einginn slijka Tign feinged sem Daniel, j Heimenum. Joseph var og mikell hiaa Pharaone Egyptalands Konge, so og voru þeir David, og Salomon, mikler j Israel, Enn aller voru þeir Smaa-Kongar og Herrar ad reikna j hiaa Babylons og Persa Kongum, hiaa hvorium Daniel var hinn ædste Stiornare og Hofdinge. Hvorium hann Daadsamlega snere til GUds, og hefur efalaust fleyrum Monnum stora Gagnseme synt, j þessu hvorutveagiu Rijke, so ad þeir eru fyrer hann komner til Vidurkienningar, og hafa Saaluhołpner orded, so sem votta þeirra somu Konga Brief, og Bodskapur, ad Menn skule j ollum Londum heidra Gud Danielis. Dan: 2 og 6 Cap.

Þennann Daniel befolum vier ollum Gudhræddum Christnum Monnum ad lesa, hvorium hann er, a þessum sidarsta Hormungar-Tijma, til hærstu Huggunar og Nytsemdar. Enn Ogudhræddum er hann til einskis Gagns, so sem hann seger sialfur j Nidurlagenu, Þeir Ogudlegu munu O-gudlega breyta, og þar um ecke skeyta. Þviad þessar Fyrersagner Danielis, og adrar þvilijkar, eru ecke alleinasta þar fyrer skrifadar, ad Menn vite Hvad til hefur bored, edur hvad skie skal, edur ad þiona þar med Forvitne þeirra sem ad Nymæle gyrnast, helldur uppa þad, ad þeir Gudhræddu hugge sig og gledie hier med, og stirke sijna Tru og Von j Þolennmæde, siaandi og heyrande hier, ad þeirra Harmkvæle skulu Enda hafa, og ad þeir mune um sider j fra Syndenne, Daudanum, Dioflenum, og ollu Illu (so sem þeir med Hugar-Andvarpan bidia) frelsast, og j Himerijke til Christum j hans eylijfa Hiaalprædis-Rijke komast. Eins so sem Christus Luc: 21 hann huggar sijna med þeim hrædelegum Teiknum og Hormungum, segiande, Nær þetta tekur ad skie, þa upphefied ydar Hofud, þviad ydar Endurlausn tekur ad naalgast!

Þar fyrer siaaum vier og einnenn hier, ad Daniel endar med Fognude allar Sioner og Drauma, Hvorsu hrædeleger sem þeir eru, sem er, med Fyrerheite Christi Rijkes, og hans Tilkomu. Hvorrar Tilkomu vegna, so

sem Annarar hellstu og fierlegustu Hofud-Greinar vegna, slijkar Sioner og Draumar eru fyrermindadar, utþyddar og uppskrifadar. Hvor hann nu vill þær med Avexte lesa, hann skal ecke vid Historiunna edur Giorningana hanga, nie þar vid blijfa ad eins, Helldur skal hann sæda og hugga sitt Hiarta med þeirre Fyrerheitinne Visslegre Tilkomu Vors Frelsara JEsu Christi, so sem med Sælre Gledesamlegre Endurlausn af þessum Hormungar Eymdar-Dal, þar til hiálpe oss þesse enn same Vor Elskulege DROttinn og Frelsare, hvorium med Fodurnum og Helgum Anda sie Lof og Dijrd ad Eylijfu,

Amen, Amen!

Ender Formaalans D. Mart. Luth. yfer Prophetann Danielem.

# Prophetenn Daniel.

## I. Capitule.

Daniel er (I) uppfæddur j Tungu-Maale og Speke þeirra Chaldæisku; Og (II) finnur Naad hiaa Drottseta Konungsins.

I. AA Pridia Aare Riikes Joachims, Konungsins Juda, kom Nabochodonosor, Konungur af Babylon, fyrer Jerusalem, og settest um hana.

2. Og DROTTinn gaf Joachim, Kongenn Juda, honum j Valld, og nockur Kierenn j burt ur GUds Huse, þau liet hann byrt flytia j Landed (a) Sinear, j sijns Guds Hus, og lagde þau somu Kierenn j Fie-Hyrdslu sijns GUds.

(a) (Sinear) Er Landed Babel.

3. Og Kongurenn sagde til Aspenas, sijns Drottseta, ad hann skyllde utvelia af Bornum Israels þau Ungmenne, sem være af Konunglegu Slekte, og Herra-Born.

4. Svein-Born þau sem eingenn Lyte hefde, helldur þau sem være Mannborleg, Skinsom, Hyggenn, Kloock og Skilnings-full, sem hæfeleg være ad þiona j Kongsins Garde, og til ad læra Chaldeanska Skrift og Tungumaal.

5. Slijkum tileinkade Kongurenn hvad þeim daglega giefast skyllde, af sinne Fædslu, og af þvi Vijnenu sem hann drack sialfur, Ad þau, so um Priu Aar uppfostrud, skylldu sijdann þiona fyrer Kongenum,

6. Medal hvorra voru þeir, Daniel, Hanania, Misael, og Asaria, af Bornum Juda.

7. Og Drottsetinn gaf þeim Nofn, og nefnde Daniel Balthazar, enn Hananiam Sadrach, enn Misael Misach, og Asaria Abed-Nego.

II. 8. Enn Daniel sette sier fyrer j sijnu Hiarta, ad hann villde ecke saurga sig med Konungsins Fædslu, og medur þvi Vijnenu sem hann sialfur af drack, Og bad Drottsetann, ad hann þyrfte ei ad saurga sig.

9. Og GUd gaf Daniele þad, ad Drottsetenn vard honum Naadugur og Lijknsamur.

10. Sa same sagde til hans, Eg hrædest minn Herra Kongenn, hvor ed ydur hefur tileinkad ydar Mat og Drick, ef ad hann sæe, þad ad ydrar Asioner være aumlegre enn þeirra annara Æsku-Manna, ydvara Jafn-Alldra, þa giordud þier mig Lijflausann vid Kongenn.

11. Þa sagde Daniel til Melzar, þess ed Drottsetenn hafde bifalad þa Daniel, Hanania, Misael, og Asaria.

12. Freista þu þess vid þijna Pienara j Tiju Daga.

13. Og laat giefa oss af Alldine ad eta, og Vatn ad drecka, og skoda þa vorn Yferlit, og so þeirra Æsku-Manna sem af Kongsins Fædslu neyta, og epter þvi sem þier synest þar epter, þa gior þu vid þijna Pienara.

14. Og hann hlydde þeim j þessu, og freistade þess vidur þa j Tiju Daga.

15. Og ad lidnum Tiju Dogum voru þeir vænne og betre aalits, helldur enn aller adrer Æsku-Menn, þeir ed aatu af Kongsins Fædslu.

16. Þa burt took Melzar þeirra tileinkadann Mat og Drick, og gaf þeim Alldene.

17. Enn GUD þessara Fiogra, gaf þeim Kunst og Skilning j Allshꜳttudum (b) Ritningum og Vijsdome. Enn Daniele gaf hann Skilning, a ollum Sioonum og Draumum.

(b) (Ritningum) Þad er, Þeir lærdu Allar þær J-Þrotter sem skrifadar voru hia Chaldeanskum.

18. Og þa ed sa Tijme var umlidenn sem Kongurinn hafde tileinkad, ad þeir skylldu innleidder verda, Þa innleidde Drottsetenn þa fyrer Nabuchodonosor.

19. Og Kongurenn talade vid þa, og þar fannst eingenn a medal allra, sem lijker være Daniel, Hanania, Misael og Asaria, og þeir urdu Kongsins Þienarar.

20. Og Kongurenn fann þa j ollum þeim Greinum sem hann þa adspurde, Tiju Hlutum Vijsare og Skilnings meire enn alla adra Stiornu-Meistara, og Vijsenda Menn, j giervollu hans Rijke.

21. Og Daniel hann lifde allt til hins Firsta Aarsins Cyri Kongs.

## II. Capitule.

Draumur Konungsins um Eitt Lijknesske (I) verdur ecke vitanlegur þeim Vijsu j Chaldæa; (II) Helldur getur Daniel sagt hann; Og (III) utlagt, so ad (IV) Konungurinn furdar sig a þvi.

1. A Odru Aare Rijkes Nabochodonosors, þa hafde Nabochodonosor eirn Draum, þar af hann ottadest, so hann vaknade vid.

2. Og hann baud til samans ad kalla alla Stiornu-Meistara, og Vitringa, og Konstra-Menn, og Chaldeos, ad þeir segia skylldu Kongenum hans Draum. Og þeir komu, og geingu fyrer Kongenn.

3. Og Konungurenn sagde til þeirra, Eg hefe haft eirn Draum, hvor mig hefur skielft, og eg villde giarnann fꜳ ad vita, Hvada Draumur þad være?

4. Þeir Chaldei sogdu þa a Chaldeansku til Kongsins, Herra Kongur! GUD unne þier langra Lijfdaga, Seg Drauminn þijnum Þienurum, so vilium vier rꜳda hann.

5. Kongurenn svarade og sagde til þeirra Chaldeansku, Hann er mier ur Minne fallenn. Ef ad þier seged mier ei þennann Draum, og rꜳded hann, þa munud þier forglatast med ollu, og ydar Hus skammarlega foreydd verda.

6. Enn ef þier seged mier Draumenn, og utþyded hann, þa skulud þier af mier þiggia Skeinkingar, Giafer, og mikel Metord. Þar fyrer þa seged mier Draumenn og hans Utskijring.

7. Þeir svorudu aptur, og sogdu, Kongurenn hann sege sijnum Þienurum Draumenn, þa vilium vier rꜳda hann.

8. Kongurenn svarade, og sagde, Ad Sonnu, þa formerke eg, þad þier villed þessu fresta, þvi þier sieaed ad hann er mier ur Minne lidenn.

9. Enn ef þier seged mier ecke Draumenn, þa utgeingur sa Urskurdur yfer ydur, so sem yfer þa ed Fals og Lygar hafa teked sier fyrer ad tala fyrer Mier, þangad til ad Tijmenn er umlidenn. Þar fyrer þa seged mier Draumenn, þa kann eg ad formerkia, þad þier raked eirnenn uppa Utskijringena.

10. Þa svorudu þeir Chaldeansku fyrer Kongenum, og sogdu til hans, Eingenn Madur a Jardrijke er sa, ad segia kunne þad sem Kongurenn heimter, so er þar og eirnenn eingenn Kongur, hvorsu mikell og megtugur sem hann er, sa ed slijks krefie af nockrum Stiornu-Meistara, Vijsenda-Manne, edur Chaldeo.

11. Þviad þad sem Kongurenn heimter er forhꜳtt, Þar er og eingenn sa sem þad kunne fyrer Kongenum ad segia, ad fraskildum Gudunum, sem ecke biggia hiꜳ Monnum.

12. Þa vard Kongurenn afar-reidur, og skipade ad lꜳta drepa alla Vijsenda-Menn j Babylon.

13. Og sa Urskurdur gieck ut, ad Vijsenda-Mennerner skylldu lijflꜳtner verda, og

epter Daniel, og hans Fielogum, var leitad, ad Menn lijfliete þa.

14. Pa formerkte Daniel soddan Urskurd og Bifalning, af Arioch, þeim ædsta Kongsins Domara, hvor ed ut for til ad aflijfa Vitringana j Babylon.

15. Og hann hoof upp, og sagde til Kongsins Foveta Arioch. Hvar fyrer er so hardur Afellis Doomur ut geingenn af Kongenum? Og Arioch sagde þad til Daniels.

16. Pa gieck Daniel upp, og bad Kongenn, ad hann giæfe honum Frest, so ad hann mætte Konungenum segia Utskijringena.

17. Og Daniel gieck heim, og kunngiørde þetta sijnum Fielogum, Hanania, Misael, og Asaria.

18. Pad þeir bæde Gud af Himne um Miskun, yfer slijkum Leyndum Hlut, so þad Daniel og hans Fielagar tortijnduſt ecke, medur hinum odrum Vijsenda-Monnum.

19. Pa vard Daniele, fyrer eina Vitran a Nættarþele, soddan Leyndur Hlutur opennberadur. Par fyrer lofade Daniel Gud af Himnum,

20. Hoof upp og sagde. Blessad sie Nafn Guds fra Eylijfd, ad Eylijfu! Pviad Hans er bæde Vijsdoomurenn og Stirkleikenn.

21. Hann skipter um Tijmana og (a) Stundernar, Hann affsetur Kongana, og innsetur Kongana, Hann giefur Vitringunum Vijsdoom, og hinum Skinsomu þeirra Skilning.

(a) (Stundernar) Hañ afsetur Tijmann, Hvorsu leinge hvørt Kongarijke skal standa, Ja, Hvorsu leinge hvor Madur skal lifa, og Hvorsu leinge hvor Hlutur skal vara.

22. Hann opennberar hvad diupt og folged er, Hann veit hvad j Mirkrunum liggur, Pviad j hia Honum er einungis Lioos.

23. Eg þacka Pier, og Lofa Pig Gud Fedra Minna! ad Pu veiter mier Vijsdoom og Stirkleik, og hefur nu opennberad þad sem vier høfum Pig beded, sem er þad, Pu giørder Kongsins Maalefne oss opennbert.

24. Pa gieck Daniel upp til Arioch, hvorrium ed Konungurenn hafde Bijfalning giefed ad aflijfa Vitringana j Babylon, og sagde til hans, Ecke skalltu fyrerfara Vitringunum j Babylon, helldur haf mig upp fyrer Konungenn, Eg vil segia Konungenum Utskijringena.

II. 25. Arioch hafde þa Danielem jafnsnart upp fyrer Konginn, og sagde so til hans, Par er eirn fundenn a medal þeirra Herleiddu af Gydinga-Lande, sa ed segia kann Kongenum Utskijringena.

26. Kongurenn svarade, og sagde til Daniels, þann þeir kolludu Balthazar, Ertu Sa sem kannt ad segia mier Draumenn, þann eg hefe sied, og hans Utskijring?

27. Daniel hoof upp fyrer Kongenum og sagde, Sa Leyndur Hlutur sem Kongurenn heimter af þeim Vijsu, Lærdu, Stiornu-Meistorum, og Sannsagnar-Monnum, þad sama er þeim ei mogulegt Kongenum ad segia.

28. Helldur Gud af Himne Hann kann ad opennbera leynda Hlute, Hann hefur og kunngiørt Kongenum Nabochodonosor hvad ed skie skal a epterkomande Tijmum. Pinn Draumur og þijn Vitran, þa ed þu svafst, kom þar af,

29. Pu Kongur! hugsader a þinne Sæng, hvornenn þad munde seirna meir hier eptera tilganga. Og Sa hinn same sem leynda Hlute opennberar, Hann hefur kunngiørt þier hvornenn þad mun tilganga. So er mier soddann leyndur Hlutur opennberadur.

30. Eige fyrer mijna Vitsku, so sem þad være hun meire enn allra annara þeirra ed lifa, helldur þar fyrer, þad Kongenum kunngiørd yrde Utskijringenn, og ad þu visser þijna Hiartans Panka.

31. Pu Kongur svast, og sica þu! Ad eitt miog miked og hatt Lijkneske stood giegnt þier, þad var ogurlegt alits.

32, Pess sama Lijkneskis-Hofud var af hinu besta Gulle, þess Briost og Armlegger voru af Silfre, Kvidurenn og Lendarnar voru af Malme.

33. Footleggerner voru af Jaarne, þess Fætur voru sumpart Jaarn, enn sumpart Leir.

34. Soddann saastu, þangad til ad einn Steirn vard afbrotenn, ` an Handa, Sa slo Lijkneskid a þess Fætur, þeir ed Jaarn og Leir voru, og j sundur braut þa.

35. Þa vard tillijka j sundur broted Jaarned, Leirinn, Malmurinn, Silfred og Gulled, og urdu so sem Agner j Sumar-Hlodu, og Vindurinn feykte þeim j burt, so ad Menn kunnu hvorge ad finna þad frammveiges. Enn Steirnenn, Sa ed Lijknesked sloo, vard eitt stoort Fiall, so þad Hann uppfyllte alla Verølldena.

III. 36. Þetta er Draumurinn, Nu vilium vier segia hans Utskijring fyrer Kongenum.

37. Þu Kongur! ert einn Kongur allra Konga, þeim er Gud af Himne hefur giefed Rijked, Magtena, Stirkleikann, og Vegsemdina.

38. Og allt þad hvar ed Menn bua, þar med Villudyrenn a Mørkunum, og Fuglana under Himnenum, j þijnar Hendur giefed, og veitt þier Valld yfer øllum Hlutum.

39. Þu ert þad Gull-Hofuded. Epter þig mun upp koma eitt Annad Konga-Rijke, minne hcattar enn þad þitt er. Þar epter-a þad Þridia Konga-Rijked, sem er af Malme, hvert ed drottna mun yfer øllum Løndum.

40. Þad Fiorda mun hardt verda sem Jaarn, þviad lijka sem Jaarned molar og j sundur brytur alla Hlute, Jaa, lijka so sem þad, ad Jaarned brytur allt, so mun þad eirnenn brióta og j sundur mola alla Hlute.

41. Enn þad þu hefur sied Fæturnar og Tærnar, sumpart Leir og sumpart Jaarn, þad mun vera eitt sundur-laust Rijke, þo mun af þeirre Jaarnsins (b) Groodur-Setningu þar inne blijfa, so sem þad Þu hefur sied Jaarned med Leirnum samblandad.

(b) (Groodur-Setningu) Sumer tala hier um Stirkleika Jaarnsins, og etc. Enn hann vill so segia ad þad Romverska Rijked, þegar þad er adskiled og flutt, og kiemur j adra Stade j burt, eins og Plantaner, edur Jurter, þa skal þad þo vera sama Plantan Jaarnsins, eda Rijkesins, og ei annad nytt Rijke. Þetta er alltsaman skied, þegar þad Romverska Rijked kom fra þeim Grickium, til þeirra Þysku, fyrer Pavann, og Carolum Magnum.

42. Og þad Tærnar a þess Fotum ern sumpart Jaarn, og sumpart Leir, þad mun ad nockru-leite eitt Øflugt, og ad nockru-leite, eitt Veikt Rijke vera.

43. Og þad þu hefur sied Jaarned vid Leirenn samblandad, þa munu þeir samteingia sig fyrer Mannlegt Sæde, enn þo munu þeir ecke hvor med ødrum hallda, lijka so sem Jaarned lætur ecke samblanda sier vid Leirenn.

44. Enn a Tijmum þeirra Konga-Rijkianna, mun Gud af Himne upphefia eitt Kongs-Rijke sem alldrei verdur foreydt, og Hans Kongs-Rijke mun ecke koma til neins annars Folks. Enn þad mun øll þesse Konga-Rijkenn sundur mola, og eydeleggia, enn þad mun blijfa eylijflega.

45. Epter þvi sem Þu hefur sied, þad Steirnenn vard afbrotenn fra Fiallenu, `an Handa, Sa ed Jaarned, Malmenn, Leirenn, Silfred, og Gulled sundurmolade. Þannen hefur Sa Mikle GUD kunngiort Kongenum, Hvornenn þad seirna meir mune tilganga, og þetta er vissulega Draumurenn, og Utskijringenn er riett.

IV. 46. Þa fiell Kongurenn Nabochodonosor framm a sijna Asionu, og (c) tilbad fyrer Daniel, og baud, ad Menn skylldu offra honum Mat-Offre, og giora honum Reykelsis Offur.

(c) (Tilbad) Ecke Daniel, helldur GUD i Daniele, annars hefde Daniel þad ecke lided.

47. Og Kongurenn andsvarade Daniele, og sagde, Þad er eingenn Efe a þvi, Ydar GUD er eirn GUD yfer øllum Gudum, og eirn Herra yfer øllum Kongum, hver ed byrta kann Leynda Hlute, med þvi þu hefur þennann Leyndann Dom kunngiord ad openbera.

48. Og Kongurenn upphoof Danielem, og gaf honum margar og miklar Giafer, og

sette

sette hann til Hofdingia yfer allt Landed Babylon, og sette hann til Forstiora yfer ollum Spekingum j Babylon.

49. Og Daniel bad af Kongenum, þad hann mætte setia yfer Hierødenn j Babylon, þa Sadrach, Mesach, AbedNego, enn sialfur Daniel var hioa Kongenum j Kongsins Garde.

## III. Capitule.

(I) Marger tilbidia þaa Gull-Lijkneskiu er Kongurinn let upsetia; Enn (II) Daniel og hans Stall-Brædur vilia ecke tilbidia hana; (III) Þar fyrer er þeim kastad i Eiñ Gloande Ofn: (IV) Ut ur hverium þeir þo gengu oskadader ad ollu Leite.

I. Kongurenn Nabochodonosor liet giøra eina * Gullega Lijkneskiu, Sextiju Alna hææ, og Sex Alna ad Breidd, og liet setia hana a eirn fagrann Flot j Landenu Babylon.

* Þessa Lijkneskiu hefur Kongurenn (mææ skie) giort epter þeim Draume, so sem GUde til Lofs, Sa ed fyrer Danielem hafde hønum þann Draum openberad, enn med þvi ad GUd hafde þetta ecke boded, og þetta var j mote hvi Firsta Bodorde, þa var þetta rangt, og ein Skurgoda-Dijrdkan, hvrad GUde ad þiona fyrer utan GUds Ord, er alltijd Afguda-Dijrdkan.

2. Og Nabochodonosor Kongur sende epter Hofdingium, Herrum, Lands-Stiornurum, Domurum, Fovitum, Rææadgiofum, og Embættis-Monnum, og ollum Magtar-Monnum j Landenu, ad þeir skylldu tilsamans koma, ad viigia þa Lijkneskiu, hvoria Kongurenn Nabochodonosor hafde upp setia lææted.

3. Þa komu Hofdingiar, Herrar, Land-Stiornar-Menn, Domarar, Fovitar, Rææadgiafarar, og Embættis-Menn, og aller Magtar-Menn j Landenu, til samans, ad viigia þa Lijkneskiu, sem Nabochodonosor hafde upp setia lææted, og þeir stodu gagnvart Lijkneskenu, hvort Nabochodonosor hafde setia lææted.

4. Og Uthroparenn kallade miøg hææt. Lææted þad ydur sagt vera, Þier Folk, Lyder og Tungumææl!

5. Nær ed þier heyred Hliod Basununnar, Herpijpunnar, Horpunnar, Gyunnar, Psalltarans, Symphonsens, og allskins Hliodfæra, þa skulud þier framm falla, og Tilbidia þa Gull-Lijkneskiu sem Nabochodonosor Kongur hefur uppsetia lææted.

6. Enn hvør sem þa ecke frammfellur og tilbidur, sa skal a samre Stundu kastadur verda j þann brennanda Ellds-Ofn!

7. Þa ed þeir heyrdu nu Hliod Basununnar, Herpijpunnar, Horpunnar, Gyunnar, Psalltarans, og allshææattadra Hliodfæra, fiellu framm allar Pioder, Lijder og Tungu-Mææl, og tilbææadu þa Gull-Lijkneskiu, sem Nabochodonosor Kongur hafde uppsetia lææted.

II. 8. Samstundis geingu framm nockrer Menn af Chaldeanskum, og ææklogudu Gydingana.

9. Hoosu upp, og sogdu til Kongsins Nabochodonosors, Herra Kongur! GUd giefe þier langa Lijfdaga.

10. Þu hefur eitt Bod lææted utganga, ad aller Menn, nær ad þeir heyrdu Hliod Basununnar, Herpijpunnar, Horpunnar, Gyunnar, Psalltarans, Symphonsins, og allshææattadra Hliodfæra, skylldu þeir framm falla og tilbidia þa Gull-Lijkneskiu.

11. Enn hvør ecke framm fielle og tilbæde, sa skyllde kastadur verda j eirn brennanda Ellds-Ofn.

12. Nu eru þar Menn af Gydingum, hvoria þu hefur sett fyrer Rææada-Menn, yfer Landed j Babylon, Sadrach, Mesach og AbedNego, þeir hiner somu fyrerlijta þitt Bodord, og dijrdka ecke þijna Gude, og tilbidia ecke þa Gull-Lijkneskiu sem Þu hefur lææted uppsetia.

13. Þa skipade Nabochodonosor, med Grimmd og Reide, ad Sadrach, Mesach og

og AbedNego, skylldu fyrer hann leidder verda. Og þeir Menn urdu leidder fyrer Kongenn.

14. Þa hoof Nabogodonosor upp, og sagde til þeirra, Hvad ætled Þier, Sadrach, Mesach og AbedNego, ei ad heidra minn Gud, og ei tilbidia þa Gull=Lijkneskiu sem eg hefe upp læted setia?

15. Nu vel! þa vered vidbuner, jafnsnart sem þier heyred Hliod Basununnar, Herpijpunnar, Horpunnar, Gyunnar, Psalltrarans, Symphonsins, og allskins Hliodfæra, þa falled framm og tilbidied þa Lijkneskiu, sem eg hefe giora læted. Enn ef þier tilbidied hana ecke, þa skulud þier a samre Stundu kastader verda j þann brennanda Ellds=Ofn. Lœtum sioa hvor Sa Gud sie, sem ydur mun frelsa af minne Hende!

III. 16. Þa upphofu þeir Sadrach, Mesach, og AbedNego, og sogdu til Kongsins Nabochodonosors, Þess giorest ecke Þorf, ad vier svorum hier til.

17. Sioa þu! Þad Vor Gud, þann vier heidrum, gietur vel frelsad oss af þeim Brennanda Ofne, þar ad auk eirnenn frelsad oss af Þinne Hende.

18. Og ef hann vill þad ecke giora, þa skalltu þo samt vita, ad vier heidrum ecke þijna Gude, Og vilium ecke helldur tilbidia þa Gull=Lijkneskiu sem Þu hefur læted upp setia.

19. Þa uppfyllltest Nabochodonosor af mikellre Grimdar=Reide, og synde sig O=skaplega bistann, vidur þa Sadrach, Mesach og AbedNego, og skipade þad giora skyllde Ofnenn Sio Hlutum Heitara enn þad vanalegt var.

20. Og skipade sijnum bestu Strijds=Monnum, sem voru j hans Herlide, ad binda þa Sadrach, Mesach, og AbedNego, og kasta þeim j þann Gloanda Ellds=Ofn.

21. So urdu þesser Menn, j sijnum Kyrtlum, Sko=Fotum, Hofud=Bunade, og odrum Klædnade, bundner, og innkastader j þann gloanda Ofn.

22. Þviad Kongsins Skipan hlaut (a) fliotlega ad giorast. Og þeir skørudu Boaled j Ofnenum so miog, so þeir Menn, sem brenna skylldu þa Sadrach, Mesach og AbedNego, forust af Ellds=Logannm.

(a) (Fliotlega) Ad Menn gæatu ecke fært þa ur Klædunum.

IV. 23. Enn þeir Þrijr Menn, Sadrach, Mesach og AbedNego fiellu nidur j þann Gloande Ofn, so sem þeir voru bundner.

24. Þa ognade Kongenum Nabochodonosor, og stock upp skyndelega, og sagde til sinna Raadgiafa, Hofum vier ecke læted fleygia þremur Monnum fiotrudum j Elldenn? Þeir svorudu Kongenum, og sogdu, Joa, Herra Kongur!

25. Hann svarade og sagde, Eg sie þo Fiora Menn lausa j Elldenum ganga, og þeim grandar ecke neitt, og Sa hinn Fiorde er þvi lijkast, sem være hann Sonur Gudanna.

26. Og Nabochodonosor gieck framm fyrer Munnann þess Brennanda Ofnsins, og sagde, Sadrach, Mesach og AbedNego! Þier Þionustu=Menn hins Hæsta Guds, ganged ut, og komed hingad! Þa geingu þeir Sadrach, Mesach, og AbedNego ut ur Elldenum.

27. Og þeir Hofdingiarner, Herrarner, Liens=Mennerner, og Raadgiafarner Kongsins komu til samans, og sœu, ad Ellduren hafde aungva Magt audsynt a Lijkomum þessara Manna, og ei svidnudu þeirra Hofud=Hœar, og þeirra Kyrtlar voru Oskiemder, Joa, og eingenn Svida Þefur var af þeim.

28. Þa hoof Nabochodonosor upp, og sagde, Lofadur sie Gud Sadrach, Mesach og AbedNego! sem sinn Eingel hefur utsendt, og frelsad sijna Þionustu=Menn, Þa sem honum treystu, Og hiellldu ecke Kongsins Bodord, helldur yfergœfu sijna Lijkame, so ad þeir villdu ongvann Gud heidra, nie tilbidia, utann alleinasta þeirra eigenn Gud!

29. Þar fyrer þa sie þetta mijn Skipun. Hvor af ollu Folke, Þiodum og Tungumœ-

lum sem lastar GUD Sadrachs, Mesachs og Abed-Nego, sa skal tortijnast, og hans Hus skemmelegana j Eyde leggiast, þvi þar er Eingenn annar GUD, sem so kann ad frelsa sem Þesse!

30. Og Kongurenn gaf Sadrach, Mesach, og Abed-Nego, mikla Magt j Landenu til Babylon.

# IV. Capitule.

Draumur Konungsins um Tred (I) er frammsettur fyrer alla Vijssenda-Menn; En (II) er utlagdur af Daniel um Sioalfann Konungenn, hver ed (III) vard utrekenn fra sijnu Kongs Rijke; (IV) En komst þo aptur til þess.

I. Kongurenn Nabochodonosor, Øllum Þiodum, Folke og Tungumaalum, GUD giefe ydur allnuikenn Frid!

2. Mier lijtst þad vel falled, ad eg kunngiøre þaug Teikn og Stoormerke sem Sa hinn Hæsste GUD hefur giort vid mig.

3. Þviad hans Teikn eru mikel, og hans Doadsemdar-Verk eru maattug, og hans Rijke er Eylijft Rijke, og hans Magtar-Vellde varer um Allder og ad Eylijfu.

4. Eg Nabochodonosor, þa eg hafde goda Hvijld j mijnu Huse, og þad gieck allt vel til a mijnu Slote,

5. Sea eg eirn Draum, og eg skielfdest, og þær Hugsaner sem eg hafde j minne Reckiu, yfer þessare Sionenne, sem eg hafde sied, Þær sturludu mig.

6. Og eg skipade, ad aller Vijsenda Menn j Babylon, skylldu hafder verda upp fyrer mig, svo ad þeir segdu mier hvad Draumurenn hefde ad merkia.

7. Þa høfdu Menn Stiornu-Meistarana, Vitringana, Chaldeaniska, og Spaadooms-Menn upp til mijn, og eg sagde framm Draumenn fyrer þeim, Enn þeir kunnu ecke ad segia mier Hvad hann merkte.

8. Allt þangad til ad Sijdurstu, ad Daniel hann kom fyrer mig (sea er kallast Balthazar, epter Nafne mijns Guds) hvor ad hefur Anda Heilagra Guda, og eg sagde framm fyrer honum þann sama Draum.

9. Balthazar! Þu hinn ædste medal Spaamannanna, hvorn eg veit, ad þu hefur Anda Heilagra Guda, Og þad eckert er huled fyrer þier, Seg þu Synena mijns Draums, þa ed eg hefe sied, og hvad hun merker!

10. Enn þesse er su Sionenn sem eg hefe sied j minne Hvijlu.

11. Sioa þu! Þar stood eitt Trie midt j Landenu, þad var nærsta Haatt, miked, og digurt, þess Hæd took allt upp j Himenenn, og þande sig ut, allt ad Endemerkum alls Landsens.

12. Þess Greiner voru Fagrar, og baaru mikenn Avoxt, so þad aller hofdu þar Fædslu ut af, oll Dyrenn j Morkenne fundu Skugga under þvi, og Fuglarner j Loptenu satu a þess Kvistum, og allt Holld fædde sig ut af þvi.

13. Og eg saa eina Syn, a minne Sæng, og sioa þu! Eirn Heilagur (a) Vardhallds-Madur for af Himne ofann.

(a) (Vardhallds-Madur) So kallar hann Einglana, þviad þeir vaka og bijvara oss, aan Aflaats, moote Dioflinum, So sem sa 91 Psalmur seger, Hann hefur bijfalad sijnum Einglum um Þig, og þad er eitt nærsta huggunarsamlegt Ord fyrer þa herleiddu Gydinga i Babylon.

14. Hann kallade haarre Roddu, og sagde so, Hoggved Tried um koll, og snijded af þvi Greinernar, og rijfed af þvi Lauf-Blodenn, og j sundurdreifed þess Avoxtum, so ad þaug Dyrenn sem under þvi liggia j burt hlaupe, og þeir Fuglarner a þess Kvistum fliuge j burtu þadann.

15. Enn laated þo Stofnenn samt blijfa, med sijnum Rootum, j Jordunne. Enn hann skal, j Jaarn-Vidium, og Eir-Hleckium bundenn, j Gras-Hogum ganga, hann skal under Doggu Himens uti liggia, og votur verda, og skal næra sig medur Villu-Dyrum, ut af Grosum Jardarennar.

16. Og Mannlegt (b) Hiarta skal j burt fra honum teked verda, og Fienadar-Hiarta

honum giefast, þangad til ad Sio Tijder eru yfer honum lidnar.

(b) (Hiarta) Vijsdoomur hlytur First j burt ad takast, nær einn Herra skal falla, þa kann Madur ad fiaa Hvorsu Vijsdoomur stiornar, enn ecke Magtenn. Prov. 29 Þegar Spaadoomurenn er ute, þa verdur Folked undarlegt og j Eyde.

17. Svoddann er j Raade Vardhallds-Mannanna urskurdad, og j Samrædum Heilagra aalyktad, so þad hiner Lifendu kanneſt þar vid, ad hinn Hæſte hafe Magt yfer Mannanna Konga-Rijkium, og giefe þaug hvorium ed hann vill, Og upphefie þa audvirdelegu til þeirra hinna somu.

18. Slijkann Draum hefe eg Kongur Nabochodonosor sied. Enn þu Balthazar! Seg hvad hann merker. Þviad aller Vijsendamenn j mijnu Rijke kunna ecke ad segia mier hvad hann merker, Enn þu kannt þad vel, þviad Ande Heilagra GUda er med þier.

II. 19. Þa skielfdeſt Daniel, hvor annars heiter Balthazar, so nær um Stund, og hans Hugsaner hriggdu hann. Enn Kongurenn sagde, Balthazar! Laat ecke Draumenn, nie hans Utþijding skurla þig. Balthazar hoof upp, og sagde, Ach minn Herra! Þad Draumenn ætti þijner Oviner, og hans Utþijding þijner Mootstodu-Menn!

20. Þad Tried sem þu hefur sied, þad so miked og digurt var, þess Hæd took allt upp j Himeninn, og þad utbreidde sig yfer allt Landed.

21. Og þess Greiner voru vænar, og þess Averter Mikler, þar ed aller Hluter hofdu Fædu ut af, og Dyrenn a Morkenne biuggu under þvi, og Fuglar Himensins saatu a þess Kvistum.

22. Þad sama ertu Kongur, þu sem so mikell og maattugur ert, Þviad þijn Magt er mikel, og tekur allt j Himenenn, og þitt Valld nær allt ut til Heimsins Enda.

23. Enn þad Kongurinn hefur sied eirn Heilagann Vardhallds-Mann af Himne ofann fara, og segia, Hoggved Tried um koll, og fordiarfed þad! Enn laated þo Stofnenn, medur sijnum Rootum, blijfa j Jordunne, Enn hann skal j Jarn-Vidium og Eir-Vidium bundenn, j Gras-Hogum ganga, Og under Doggu Himens liggia, og votur verda, og med Ville-Dyrum j Utehogum ala sig, þangad til ad Sio Tijder eru umlidnar yfer honum.

24. Þetta er Þydingenn, Herra Kongur! Og svoddann Raad hins Hæſta geingur yfer minn Herra Kongenn.

25. Þeir munu j burt reka þig fra Monnum, og þu hlytur hiaa Villu-Dyrum j Ut-Hogum ad vera, og þeir munu þig Gras bijta laata sem Naut, og þu munt under Doggu Himens liggia, og votur verda, Þangad til ad Sio Tijder eru yfer þier umlidnar. So ad þu medkenner, þad Sa hinn Hæſte hafe Magt yfer Konga-Rijkium Mannanna, og giefe þau hvorium ed hann vill.

26. Enn þad sagt er, Ad þeir skylldu þo laata blijfa Stofnenn Triesins, med sijnum Rootum, þad er. Þitt Kongs-Rijke skal þitt blijfa, þa ed þu hefur kannaſt vid þa Magt sem er aa Himnum.

27. Þar fyrer, Herra Kongur! Laat þier mitt Raad vel þocknaſt, og gior þig lausann af þijnum Syndum, medur Riettvijse, og kvitta þig af Þijnum Misverkum, medur Goodgiordum vidur Fraatæka, Þa mun Hann lijda þijnar Synder vid þig.

III. 28. Allt þetta kom yfer Kongenn Nabochodonosor.

29. Þviad ad Tolf Maanudum lidnum, þa ed Kongurinn gieck j sijnu Konglegu Slote j Babylon,

30. Hoof hann upp, og sagde, Þetta er Su hin mikla Babylon! hvoria eg hefe uppbiggt ut af mikellre Magt, til Konungligra Herbergia, til Heidurs vid minn Herradoom!

31. Fyrr enn þad Kongurenn hafde þesse Ord ut talad, Fiell Rauſt af Himne ofann, Þier Nabochodonosor Kongur verdur sagt! Þitt Kongs Rijke skal j burt fra þier takaſt!

32. Og þu munt j burtu rekenn verda fra ødrum Mønnum, og medur Dyrum, sem ganga a Mørkenne, skalltu vera, Gras munu Menn lQata þig eta, sem annad Naut, þangad til ad Sio Tijder eru umlidnar yfer þier. So ad þu medkenner þad, ad Sa hinn Hæsrste hafe Magt yfer Konga-Rijkium Mannanna, og giefe þau hvørium ed hann vill!

33. A samre Stundu vard þad Ord fullkomnad yfer Nabochodonosor, og hann vard j burt rekenn fra Mønnum, og beit Gras, sem Naut, og hans Lijkame loa under Døggu Himens, og vard votur, þangad til ad hans Hoar vox so miked sem Arnar-Fiadrer, og hans Neglur urdu sem Fugla-Klær.

IV. 34. Ad lidnum þessum Tijma, Hoof eg Nabochodonosor mijn Augu upp til Himens, og kom til Skinsemdar aptur, og eg sagde Lof hinum Hæsta, Eg prijsade og heidrade Þann sem lifer Eylijflegana, hvørs Magtar-Velde þad Eylijft er, og hans Rijke varer um Allder og ad eylijfu.

35. J hiQa hvørium ed aller, þeir er a Jordu byggia, eru so sem ecke neitt reiknande. Hann giører so sem hann vill, bæde vidur Krapta Himensins, og vidur þa er oa Jordu bua, og eingenn er sa ed Hans Hønd kann ad hindra, nie til hans sQe sagt, Hvad giører Þu?

36. A þeim sama Tijma kom eg aptur til Skinsemdar, so komst eg og eirnenn aptur til minnar Konunglegrar Vegsemdar, til minnar Dijrdar, og til minna Yferlita, og mijner Roadgiafar og Villdar-Menn leitudu mijn, og eg vard innsettur j mitt Kongs-Rijke, Og mier til-løgdust þa enn miklu meire Virdingar.

37. Þar fyrer lofa eg Nabochodonosor, og heidra, og dijrdka Þann Himna Konungenn, Þviad allar Hans Giørder eru Sannleikur, og Hans Veiger eru rietter, og þann ed Dramblæatur er kann Hann ad lijtellæta.

# V. Capitule.

(I) Skriftenn oa Veggnum fyrer Balthazar Kongi (II) epter Forlage Drottningarennar (III) Lesenn og Utþydd af Daniel, sem (IV) giørest þess vegna Einn Volldugur Madur j Rijkenu.

I. 1. Balthazar Kongur giørde eitt herralegt Gesta-Bod sijnum Magtar-Mønnum, og Hofuds-Mønnum, og drack sig druckenn medur þeim.

2. Og þa ed hann var druckenn ordenn, (a) skipade hann ad sækia þau Gull-Kerenn, og Silfur-Kerenn, sem hans Fader Nabochodonosor hafde teked ur Musterenu til Jerusalem, so þad Kongurenn, med sijnum Villdar-Mønnum, med sijnum Kvinnum, og med sijnum Frillum drecke þar utaf.

a) (Skipade hann) Þad var ei nog ad drecka, helldur hlutu þeir og so ad spotta Gud þar med, og misbruka hans Kier, þvi seger Pall, ad epter Dryckiuskap fylgde eitt Offickanligt Lijferne.

3. Þa urdu þau Gull-Kerenn frammborenn, sem ur Musterenu, ut af þvi Guds Huse til Jerusalem, voru j burt tekenn, og Kongurenn, hans Villdar-Menn, hans Kvinnur, og Frillur druck u þar ut af.

4. Og þa ed þeir druck u so, (b) lofudu þeir þa Gudena sem voru Gull, Silfur, Eir, Joarn, Stockar og Steinar.

(b) (Lofudu) Þeim Gudi j Jerusalem til Hædungar og Spotts, so sem veikum og vanmæattugum Gudi, fra hvørium þeir høfdu þesse Kier teked.

5. Riett a þeirre sømu Stundu geingu framm Fingur, so sem Manns-Hond, þeir ed skrifudu gięgnt Liosa-Stikunne, a þeim Forsagada Veggnum j Kongs-Høllenne. Og Kongurenn vard var vid Høndena sem skrifadi.

6. Þa took Kongurenn Lita-Skipte, og hans Þankar skielfdu hann, so ad hans Lendar skulfu, og Footleggerner titrudu.

7. Og Kongurenn kallade miøg ofur hQatt, ad þeir innleiddu fyrer hann Vitringana, þa Chaldeos, og SpQasagnar-Menn. Og liet segia Vitringunum j Babylon, Hvør Madur

sem

sem les þessa Skrift, og kann ad segia Hvad hun merker, sa skal medur Purpura klæddur verda, og Gull-Feste a Hoalse bera, og hinn Pridie Herra j mijnu Kongs-Rijke vera.

8. Pa urdu aller Vijsenda-Menn Kongsins upp hafder, Enn þeir kunnu hvorke Skriftena ad lesa, nie Utþydingena Konginum ad segia.

9. Hvar af þad Kongurenn Balthazar skielfdest enn miklu meir, og misste med ollu sitt Yferbragd, og hans Villdar-Monnum fiell þad þungt.

II. 10. Pa gieck Drottningenn, vegna þvilijkra Kongsins Moalefna, og hans Villdar-Manna upp j Salenn, og sagde, Herra Kongur! Gud giefe þier langa Lijfdaga! Loattu ei þijna Hugsan so skielfa þig, og umskipt ei so þijnum Yferlitum!

11. Þar er eirn Madur j þijnu Kongs-Rijke, sa ed hefur Anda Heilagra Guda, Þviad a Dogum Fodur þijns fannst j hioa honum Upplysing, Speke og Vijsdomur, so sem Gudanna Vijsdomur er. Og þinn Fader, Nabochodonosor Kongur, sette hann yfer Stiornu-Meistarana, Virringana, Chaldeos, og Spoasagnar-Mennena.

12. Af þvi þar fannst eirn ædre Ande med honum, þar ad auk Vijsdomur og Skilningur Drauma ut ad skijra, og mirkvar Sagner ad roada, og Huienn Moalefne ad openbera, sem er Daniel, hvorn ed Kongurenn liet kalla Balthazar. Þar fyrer kalle Menn nu (c) Daniel, hann mun segia hvad þetta merker.

(c) Daniel var nu so sem forgleymdur hioa þessum Konge, so ad Menn hlutu ad leita ad honum, og kalla a hann. So geingur þad til um alla Truu Þienara j Verolldenne.

III. 13. Pa vard Daniel uppleiddur fyrer Kongenn. Og Kongurenn sagde til Daniels, Ertu sa same Daniel, eirn af þeim Herleiddu af Juda, Hvorn ed Kongurenn, Fader minn, hefur hingad haft af Juda?

14. Eg hefe heyrt sagt af þier, Pad þu hafer Anda Heilagra Guda, og Uppbyrting, Skilningur, og diupur Vijsdomur sie hioa þier fundenn.

15. Nu hefe eg loated kalla fyrer mig Spekinga, og Vijsenda-Menn, þad þeir læse mier þessa Skrift, og skylldu segia hvad hun merkte, og þeir kunna ecke ad segia mier hvad soddan merker.

16. Enn af þier heyre eg, þad þu muner kunna Utskijringena ad greina, og þad Huled er ad openbera. Ef ad þu kannt nu ad lesa Skriftena, og segia mier Hvad hun merker, þa skalltu med Purpura klæddur verda, og Gull-Feste a þijnum Hoalse bera, og sa hinn Pridie Herra vera j mijnu Kongs-Rijke.

17. Pa hoof Daniel upp, og sagde fyrer Kongenum, Halltu sioalfur þijnum Goafum, og gief þijnar Goafur einhvorium odrum! Enn þo vil eg þessa Skriftena lesa fyrer Kongenum, og segia hvad hun merker.

18. Herra Kongur! Gud Sa hinn Hæste hefur giefed þijnum Fodur Nabochodonosor Konunglegt Rijke, Megtena, Heidurenn og Herradomenn.

19. Og fyrer þeirrar somu Magtar saker, sem honum var giefenn, hræddust hann og fordudust allar Þioder, Folk og Tungumoal. Hann aflijfade hvorn hann villde, Hann slo hvorn hann villde, Hann upphafde hvorn hann villde, Hann Lijtillætte hvorn hañ villde.

20. Enn þa hans Hiarta upphoof sig, og hann took Stolltur og Dramblöatur ad verda, var hann afsettur þeim Konunglega Stoole, og var sijnum Heidre sviptur.

21. Og vard j burt rekenn fra Monnum, og hans Hiarta vard lijka sem Dyranna, og hlaut j hioa Villudyrum ad hlaupa, og oat Gras sem Naut, og hans Lijkame loa under Doggu Himens, og vard votur. Allt þangad til ad hann lærde, ad Sa hinn Hæste Gud hafe Magt yfer Mannanna Konga-Rijkium, og giefe þau hvoriuni ed hann vill.

22. Og þu Balthazar, hans Sonur! hefur ecke lijtillætt þitt Hiarta, þo ad þu visser allt saman þetta.

23. Helldur hefur þu upphafed þig j mote Himna-Drottnenum, og Kierenn ur hans Huse hlutu Menn ad bera fyrer þig, og Þu, þijner Villdar-Menn, þijnar Kvinnur, og þijnar Frillur hafa drucked þar af, Þar ad auk heidrad þa Afgude sem eru Silfur, Gull, Eir, Jaarn, Trie og Steinar, þeir ed hvørke siaa nie heyra, nie til finna, Enn þann sama Gud sem þinn Andardraatt, og alla þijna Vegu hefur j sinne Hende, þa hefur þu ecke dijrdkad.

24. Þar fyrer er þesse Hønd fra hønum ut send, og þesse Skrift, sem þar stendur, upp teiknud.

25. Enn þesse er Skriftenn, sem þar stendur uppteiknud, Mene, Mene, Tekel, Upharsin.

26. Og hun merker þetta, Mene, þad er, Gud hefur þitt Rijke taled og utendad.

27. Tekel, þad er, Þeir hafa þig a Vog veiged, og hellst til Liettvægann funded.

28. Peres, þad er, Þitt Rijke er j sundur skipt, og þeim Medis og Persis giefed.

IV. 29. Þa skipade Balthazar, þad Daniel skyllde klæda med Purpura, og laata Gull-Feste hønum a Hoals, og liet utberast af hønum, þad hann være hinn Þridie Herra j Kongs-Rijkenu.

30. Enn a þeirre sømu Noatt vard Balthazar, Kongur þeirra Chaldeansku, j hel sleigenn.

## VI. Capitule.

Daniels (I) Metord i Rijkenu; (II) Hann er klagadur fyrer Konungenum; (III) Hønum er kastad i Leona Grøf; og (IV) hann kemst þadan alheill.

I. Og Darius ut af Meden took Rijked ad sier, þa ed hann hafde Tvo Vetur um Sextugt.

2. Og Dario leitst þad vel falled, ad hann sette, yfer allt Kongs-Rijked, Hundrad og Tuttugu Lands-Foveta.

3. Enn yfer þessa sette hann Þria Høfdingia, Einn af þeim var Daniel, hvørium þad Lands-Fovetarner skyllde Reikningskap giøra, so þad Kongurenn hefde þar ecke Þvingan af.

4. Enn Daniel bar af øllum Høfdingium, og Lands-Fovetum, þviad eirn ædre Ande var med hønum, þar fyrer þa hugde Kongurenn ad setia hann yfer allt Kongs-Rijked.

II. 5. Hvar fyrer þad Høfdingiarner og Lands-Fovetarner stundudu þar epter, Hvornenn þeir giætu feinged nockra Søk til Daniels, sem Kongs-Rijkenu være a mote. Enn þeir goatu øngva Søk nie Illgiørd funded, þviad hann var Trur, so þad eingenn Søk nie Misgiørd kunne ad finnast medur hønum.

6. Þa søgdu þeir hiner sømu Menn, Vier munum øngva Søk finna Daniele, utann j hans Guds-Dijrdkan.

7. Þa komu Høfdingiarner, og Lands-Fovetarner aller til samans, fyrer Kongenn, og søgdu so til hans, Herra Darius Kongur! Gud giefe þier langa Lijfdaga!

8. Høfdingiarner Rijkesins, Herrarner, Lands-Fovetarner, Raadgiafar, og aller Hofuds-Menn hafa upp þeinkt, þad ein Konungleg Skipan skyllde ut ganga, og eitt streingelegt Bod giørast, ad hvør hann j Þriatijge Daga bidur eins hvørs af nockrum Gude, edur Manne, utan af Þier Kongur! Einum saman, þa skule sa kastadur verda j Grøfena til Leonanna.

9. Þar fyrer, Kiære Kongur! skalltu stadfesta soddann Bod, og skrifa þar under, so ad þad verde ecke umbreitt aptur, epter Løgmaale þeirra af Meden og Persen, hvørt þad eingenn þorer ad yfertroda.

III. 10. So underskrifade Kongurenn Darius þetta Bod.

11. Enn sem Daniel fornam nu, þad soddann Befalning var underskrifud, gieck hann upp j sitt Hus, (enn hann hafde j sijnu Sumar-Huse eitt oped Vindauga, j mote Jerusalem) og hann fiell a sijn Knie, Þrisvarsinnum a Deigenum, badst fyrer, lofade og þackade sijnum Gude, so sem hann var vanur ad giøra.

12. Þa

12. Pa komu þesser Menn j Hoop til samans, og fundu Danielem liggiande a Bæn, og bidiande, og grœatbænande fyrer Gude sijnum.

13. Og þeir geingu þangad, og toludu vid Kongenn, um þad Kongsins Bod, Herra Kongur! Hefur þu ei eitt Bod underskrifad, Ad hvør hann j Priatijge Daga bæde einshvørs Hlutar af nockrum Gude, eda Manne, utan af þier Kongenum einumsømum, þa skyllde sa j Leona Grøfena kastadur verda? Kongurenn svarade og sagde, Sannende eru þad, og Løg þeirra j Meden, og Persen skal eingenn yfertroda.

14. Þeir svorudu og sógdu fyrer Kongenum, Daniel, af þeim Herteknu af Juda, skeyter hvorke um þig, nie þitt Bod, þad þu hefur upp teiknad, þviad hann bidst fyrer Prisvarsinnum a Deige.

15. Pa Kongurenn heyrde þad, vard hann miøg hriggur vid, og hafde þar stora castundan a, ad hann feinge frelsad Danielem, og hafde þar miked Omak fyrer, allt til þess ad Solenn var under geingenn, ad hann frelsade hann.

16. Enn þeir somu Menn komu j einum Hoop til Kongsins, og sógdu til hans, Pu veitst, Herra Kongur! ad þad er Løgmaal j Meden og Persen, ad øll þau Bod og Bifalningar sem Kongurenn sialfur hefur aalyktad, skule vera Oumbreyteleg.

17. Pa skipade Kongurenn ad leida framm Danielem, og kasta hønum j Grøfena til Leonanna. Enn Kongurenn sagde til Daniels, Pinn Gud, sem þu þionar aan afloats, hann hiaalpe þier.

18. Og þeir sooktu eirn Stein, hann løgdu þeir yfer Munnann Grafarennar, þann hinn sama jnnsiglade Kongurenn med sijnum eigenn Hring, og medur Hringum sinna Villdar-Manna, so þad eingenn giørde Daniele neitt til Vonda.

19. Og Kongurenn gieck j burt þadann til sijns Slots, og neytte einskis, og liet ongvann Mat fyrer sig bera, gat og ecke hellldur sofed.

IV. 20. Um Morgunenn snemma, þegar dagade, stod Kongurenn upp, og gieck med Flyte burt til Grafarennar, þar ed Leonenn jnne voru.

21. Og sem hann kom ad Grøfenne, kallade hann a Daniel, med sorglegum Hliodum. Og Kongurenn sagde til Daniels, Daniel! Pu Pionustu-Madur Hins Lifanda Guds! Hefur eirnenn Pinn Gud, hvørium þu þionar aan afloats, kunnad ad frelsa þig j fra Leonunum?

22. Enn Daniel talade vid Kongenn, Herra Kongur! Gud giefe þier langa Lijfdaga!

23. Minn Gud hefur sendt sinn Eingel, hvør ed Leonanna Kverkum hefur til samans hallded, so ad þau hafa eckert Mein mier giørt, þviad fyrer hønum em eg Saklaus fundenn, so hefe eg og ecke neitt a mote þier giørt, Herra Kongur!

24. Pa gladdest Kongurenn miøg, og skipade ad draga Danielem ut aptur af Grøfenne. Og þeir droou Daniel burt ur Grøfenne, og þar fannst eckert Saar a hønum, þviad hann hafde treyst sijnum Gude.

25. Pa skipade Kongurenn ad framm leida þa Menn, sem aaklagad høfdu Danielem, og ad kasta þeim j Grøfena til Leonanna, medur þeirra Konum og Bornum. Og fyrr enn þeir komust nidur a Botnenn, gripu Leonenn þa, og sundur muldu eirnenn þeirra Bein.

26. Pa liet Kongurenn Darius øllum Piodum, Folke og Tungumaalum til-skrifa, Gud giefe Ydur mikenn Frid!

27. Pad er Mijn Skipan, þad j allre Velldis-Stiornan mijns Rijkes, þa skulu Menn ottast og hrædast Gud Danielis. Þviad hann er Sa Lifande Gud, semer Eylijflegana, og hans Rijke er Oforgeingelegt, og hans Velldis-Stiornan hefur Ongvann Enda.

28. Hann

28. Hann er einn Frelsare og Naudhiaalpare, Og Hann giører Taakn og Stormerke, bæde aa Himnum og aa Jordu, Hann hefur frelsad Danielem j fraa Leonunum.

29. Og Daniel vard volldugur j Kongs Rijke Darij, og j Kongs Rijke Cyri af Persia.

## VII. Capitule.

Daniels Syn (I) um þau Fiogur Dyr, Er (II) utþydd um Fiogur Kongs-Rijke Jardarennar.

I. 1. AA Firsta Aare Balthazar, Kongsins j Babylon, hafde Daniel eirn Draum og Syn, a Sæng sinne, og hann skrifade þann Draum, og samsette hann med þessum Hætti.

2. Eg Daniel saa eina Syn a Naattar-Tijma, Og siaa þu! Pad Fiorer Vindar under Himnenum stormudu hvør a moote ødrum, a þvi hinu mikla Siaafar-Hafenu.

3. Og Fiogur Dyr mikel stigu upp ur Sionum, hvørt ødru Olijkt.

4. Hid Firsta lijka sem Leon, og hafde Vænge sem Ørn, Eg horfde a, þangad til ed Vængerner af þvi urdu j burtplockader, og þad vard j burt teked af Jørdu, og þad stood uppa sijnar Fætur, lijka sem Madur, og þvi vard eitt Manns Hiarta giefed.

5. Og siaa þu! Pad Annad Dyred þar nærst var lijkt einu Biarn-Dyre, og þad stood ødrumeiginn, og hafde j sijnum Munne, medal sinna Tanna, Þriar stoorar og langar Tennur, Og til þess hins sama var so sagt, Statt upp, og et miked Kiot!

6. Epter þetta saa eg, og siaa þu! Eitt Annad Dyr, lijkt einum Pardus, þad hafde a sijnu Bake Fiora Vænge, lijka sem Fugl, Og þad sama Dyred hafde Fiogur Høfud, og þvi vard Valld giefed.

7. Epter þetta saa eg j þessare Syn a Naattar-Tijma, Og siaa þu! Pad Fiorda Dyred var Ogurlegt og Hrædelegt, og miøg Sterkt, og hafde stoorar Jaarn-Tennur, aat j krijngum sig, og j sundur molade, og þad hvad Afgangs var, þa stie þad j sundur med sijnum Footum, Pad sama var og miøg O-lijkt hinum ødrum, og hafde Tiju Horn.

8. Enn þa eg leit þau Hornenn, Siaa þu! Pa vox upp a mille þeirra hinna sømu eitt Annad lijted Horn, fyrer hvøriu þad hin fremstu Hornenn Þriu urdu afbrotenn. Og siaa þu! Pad sama Horn hafde Augu, lijka sem Manns Augu, og Munn þann ed talade mikla Hlute.

9. Soddann saa eg, þangad til ad þar urdu Stoolar setter, og Hinn Gamle settist nidur, hvørs Klæde var hvitt sem Snior, og hans Høfud-Haar so sem taa-hrein Ull, og hans Stooll var eirn Ellds-Loge, og Hiooleinn þess hins sama brunnu med Ellde.

10. Og af þess Sama Auglite gieck ut eirn langur gloandi Geisle. * Þusund-sinnum Þusund þionudu Hønum, og Tiju-sinnum Hundrad Þusunder stoodu framme fyrer Hønum. Doomurenn vard hallde[nn], ** og Bækurnar urdu uppluknar.

* Opinnb: Book: 5, 11. ** Opinnb: B: 20, 12.

11. Eg skygndest ad, vegna þeirra stooru Orda, sem þad Horned talade. Eg skygndest ad, allt þangad til ad Dyred vard j hel slieged, og þess Lijkame fyrerforst, og vard j Elld kastadur.

12. Og Magtenn þeirra Annara Dyranna vard eirnenn utgiørd. Þviad þeim var Tijme og Stund tileinkud, Hvørsu leinge þad sierhvørt þeirra skyllde vara.

13. Eg saa j þessare Nætur-Syn, og siaa þu! Ad þar kom Eirn j Skijum Himens, Lijka sem Mannsens Son, þangad til Hins Gamla, og var hafdur fyrer hann.

14. Hann gaf Hønum Magt, Heidur, og Rijke, so þad Hønum skyllde þiona allt Folk, Þioder og Tungumaal, Hans Valld er Eylijft, hvørt ad ecke forgeingur, og Hans Kongs-Rijke hefur øngvann Enda.

15. Eg Daniel ottadest af þessu, og soddann Sioner þær skielfdu mig.

II. 16. Og eg gieck til eins þeirra sem þar stodu, og bad hann, þad hann segde mier Sanna

Skyring a þessu ollu. Og hann talade vid mig, og sagde mier j fra hvad þad merkte.

17. Þesse Fiogur hin miklu Dyrenn eru Fiorer Kongar sem upp munu koma a Jordu.

18. Enn Heilager hins Hæsta munu Rijked under sig leggia, og eignast þad um Allder og ad Eylijfu.

19. Þar epter-a villde eg giarnann hafa vitad sanna Vissu ut af þvi Fiorda Dyrenu, hvert ed var allt odruvijs enn oll hin onnur, miog Ogurlegt, þad er hafde Jarn-Tennur, og Eir-Klaufer, þad oat j kringum sig og j sundurmolade, og hitt, hvad Afgangs var, stie þad j sundur med sijnum Fotum.

20. Og af þeim Tiju Hornum a þess Hofde. Og af þvi odru sem þar vox upp, fyrer hvoriu Þriu af fiellu, og af þvi sama Hornenu sem Augunn hafde, og þann Munnenn sem mikla Hlute talade, og þad var stærra enn þau sem hioa þvi voru.

21. Og eg sa þad sama Horn beriast j moote Heilogum, og hafde Sigur j moote þeim.

22. Þangad til Sa hinn Gamle kom, og hiellt Doom fyrer þa Heilogu hins Hæsta, og Sa Tijme kom, þad hiner Heilogu tooku Rijked under sig.

23. Hann sagde so, 'Þad Fiorda Dyred mun vera þad Fiorda Rijked a Jordu, hvert Megtugra mun verda enn oll Rijkenn, þad sama mun oll Lond svelgia, under troda, og sundur meria.

24. Enn þaug Tiju Hornenn merkia Tiju (a) Konga, sem ut af þvi sama Rijkenu munu uppkoma. Enn epter þa hinu somu, mun eirn Annar uppkoma, og sa mun megtugre vera enn nockur af þeim fyrrum, og hann mun Þria Kongana under þrickia.

(a) So sem af Alexandri Rijke urdu Fiogur Konga-Rijke, So eru ur Romveria-Rijke Tiju Rijke ordenn, sem er Syr-Land, Egypta-Land, Asia-Land, Grick-Land, Val-Land, Frack-Land, Spania-Land, Africa, Þyska Land, Enga Land, Þviad þesse oll Konga-Rijke hofdu Romveriar under sijnu Vallde.

25. Hann mun tala Gudlastan a moote hinum Hæsta, og foreyda Heilogum hins Hæsta, og mun takast a Hendur ad umbreyta Tijmum og Laga-Setningum. Enn þeir munu j hans Hendur giefner verda um eirn Tijma, og nockra Tijma, og eirn hoalfann Tijma.

26. Þar epter-a mun Doomurenn hallden verda, þa mun hans Magt j burtu tekenn verda, so þad hann nidur j Grunn afmoadur og forglatadur verde.

27. Enn Rijked, Vallded og Magtenn under ollum Himne mun þvi Heilogu Folke hins Hæsta giefenn verda, hvors Rijke ad eylijft er, og allt Valld mun honum þiona og hlyda.

28. Þetta var Ender Rædunnar. Enn eg Daniel hriggdest miog j mijnum Þonckum, og minn Yferlitur umskiptest, þo hiellt eg þessare Rædu j mijnu Hiarta.

## VIII. Capitule.

Draumur Danielis (I) um Rutinn og Kiarn-Hafurinn; Er (II) utlagdur þannig, ad Ruturinn merkte Konungana i Meden og Persia; En Kiarn-Hafurinn Konunginn af Grick-Lande.

I. A Þridia Aare Rijkis Balthazar Kongs, birtest mier Daniele ein Sion, epter þvi sem mier birtist j Firstu,

2. Enn eg var, þa eg sooddann Sion sa j Slotenu Susan, j Landenu (a) Elam, vid Vatned Ulai.

(a) (Elam) Kallast hier epter-a Persia Land.

3. Og eg lypte mijnum Augum upp og sa, Og sioa þu! Ad eirn Hrutur stood framm vid Vatned, Hann hafde Tvo hoa Horn, þad Annad var þo odru Hærra, og þad hid Hærra vox um sijder.

4. Eg sa þad Hruturenn stangade med Hornunum, j moot Vestrenu, moot Nordrenu, og j moot Sudrenu, Og eingenn Dyr kunnu fyrer honum ad standa, nie ut af hans Hende ad frelsast, Helldur hafdest hann ad, hvad hann villde, og vard mikell.

5. Og sem eg hugleidde ad þessu, Sioa þu! Pa kom eirn Kiarn-Hafur ur Vestrenu, yfer alla Jordena, so þad hann snart ei Jordena, Og sa same Kiarn-Hafurenn hafde eitt oalitlegt Horn, a millum sinna Augna.

6. Og hann kom allt ad Hrutnum, sem Tvo Hornenn hafde, hvorn eg sa standa framm vid Vatned, Og hann hlioop j Reide sinne harDlega ad honum.

7. Og eg sa til hans, þa hann kom alla Leid ad Hrutnum, og olmadest mieg vid hann, og stangade Hrutinn, og j sundur molade Tvo hans Horn. Og Hruturinn hafde engvann Krapt, þad hann giæte stadest fyrer honum, helldur fleygde hann honum til Jardar, og trad hann under, og eingenn kunne Hrutenn ad frelsa af hans Hende.

8. Og Sa Kiarn-Hafurennn vard nærsta mikell, og þa ed hann var sem sterkastur ordenn, j sundur brotnade þad mikla Horned, og j stadenn þess uxu upp Fiogur oalitleg, j moote þeim Fiorum Vindum Himensins.

9. Og ut af einu þvi enu sama, vox upp eitt lijted Horn, þad var nærsta miked, moot Sudrenu, moot Austrenu, og j moote þvi (b) Verduga Lande.

(b) (Verduga) Þad er, Gydinga-Lande, þar sem Gud byr j Jerusalem, j Musterenu.

10. Og þad vox allt til þess (c) Himneska Hersins, og nidur sloo þar nockra af, og af þeim Stiornunum, til Jardar, og trad þær under.

(c) Himneskur-Her Er Guds Pionusta til Jerusalem, epter þvi, ad Gude a Himnum var þar med þionad, og hann var einn Hofdinge yfer þeim Her, og Stiornurnar eru þeir Heilogu j þessum Hernum.

11. Joa, þad sama vox allt til Hofdingia þess Hersins, Og took j burt fra honum þad Daglega Offred, og foreydde Byggd hans Helgedooms.

12. Enn honum vard su Magt giefenn, moote þvi Daglega Offrenu, fyrer Syndanna Saker, ad hann Sannleikenn nidur ad Velle lagde, og hvad hann giorde þad luckadest honum.

13. Enn eg heyrde eirn Heilagann segia, og Sa hinn same Heilage mællte til eins þeirra sem þar talade, Hvorsu leinge skal þo soddan Syn, af Daglegu Offre, og af Syndenne, vara, vegna hvorrar þad þesse Foreyding skier, so þad bæde Helgedoomurenn og Herinn nidur trodinn verde?

14. Og hann svarade mier, Pad eru Tvo Pusund og Priu Hundrud Dagar, fra (d) Kvollde til Morguns ad reikna, Pa mun Helgedoomurenn vijgdur verda ad nyu.

(d) (Kvollde til Morguns) Þetta eru ei Viku-Dagar, so sem Dan: 9 Cap: Aars Vikur, helldur Naatturleger Dagar, þar ed Menn reikna bæde Kvolld og Morgna.

II. 15. Og þa eg Daniel sa soddann Syn, og giarnann villde hana skiled hafa, Sioa þu! þa stood fyrer framann mig, lijka sem annar Madur.

16. Og eg heyrde eins Manns Raust a millum Ulai, sa kallade og sagde, Gabriel! Utlegg þu þessum Synena, so ad hann skilie hana.

17. Og hann kom þar alla Leid ad mier. Enn eg vard ottasleigenn, þa ed hann kom, og fiell framm a mijna Asionu. Enn hann sagde til mijn, Gief Gaum ad, Pu Mannsins Son! Pviad þesse Synenn heyrer til (e) Endingarinnar Tijma.

(e) (Endingarennar Tijma) Hann lætur hier merkia, ad Hann med þessare Sion meinar ecke alleinasta Antiochum Epiphanem, helldur og eirnenn Anta-Christenn.

18. Og þa hann talade vid mig, leid eg nidur j Aungvit, til Jardar, framm a mijna Asionu. Enn hann took til mijn, og reiste mig upp, so ad eg stood.

19. Og hann sagde, Sioa þu! Eg vil kunngiora þier, hvornenn þad mune tilganga a Tijmum hinnar Sijdurstu Reide, Pviad Endenn hefur sinn tileinkadann Tijma.

20. Sa Hruturenn med þeim Tveimur Hornunum, sem þu hefur sied, þad eru þeir Kongar j Media og Persia.

21. Enn sa Kiarn-Hafurenn er Kongur j

Grick-Lande. Pad hid mikla Hornid, a millum hans Augna, er sa hinn Firste Kongur.

22. Enn þar ed Fiogur stoodu j þess Stad, þa þad var af brotid, þad merker, ad Fiogur Konga-Rijke munu uppkoma af þeirre Þiod, Enn þo eige svo megtug sem hann var.

23. Epter þesse Konga-Rijkenn, nær Yfertrodslu Mennerner hafa Yfer-Hond, þa mun uppkoma eirn Illgiarn og Hreckvijs Kongur.

24. Sa mun Megtugur vera, þo eige fyrer (f) sinn Krapt, Hann mun med undarlegum Hætte foreyda, og þad sama mun honum luckast, ad hann fær þvi so til vegar komed. Hann mun hina Öflugu, ásamt med þvi Heilaga Foolke, vid Velle leggia.

(f) (Sinn Krapt) Helldur med Slægdum, Svikum og Prettum.

25. Og fyrer sijna Kiænsku mun honum þad Svikræde takast. Og hann mun metnast j sijnu Hiarta, og fyrer (g) Velgeingne mun hann marga fordiarfa, og mun setia sig upp j mote þeim Hofdingianum allra Hofdingia, Enn hann mun aan Handa j sundur-lamenn verda.

(g) (Velgeingne) Hann hefur miked Gots, Virding og Luck, og lifer j Dryckiu-Svalle, þar med mun hann marga til sijn locka.

26. Su Synenn af Aftnenum og Morgnenum, sem þier er sogd, hun er sonn, enn þu skallt bijvara þa Syn Heimuglega, þviad þad er enn eirn (h) langur Tijme þangad til.

(h) (Langur Tijme) Hann lætur hier aptur vitnast, ad hann meine annad meira enn Antiochum, þvi Antiochus kom ecke seirna enn hællft fiorda Hundrad Aara epter þessa Syn.

27. Og eg Daniel vard veikur, og laa siukur nockra Daga. Þar epter-a stood eg upp, og starfade j Konungsins Erindum, og mig furdade þesse Syn, og þar var sa eingenn, ed utlegde hana fyrer mier.

# IX. Capitule.

Daniel (I) Bidur um Frelsun Israels; En (II) Gabriel seger honum, ad JEsus eyge ad birtast i Holldenu.

I. Á Firsta Aare Darij, Sonar Assveri, af Slekte þeirra j Meden, hvor ed Kongur vard yfer Rijkium þeirra Chaldeanskn.

2. *A þvi sama firsta Aarenu hans Rijkis-Stiornar, hugde eg Daniel ad, j Bokunum, ad þeirre Aaratolu, sem DROTTinn hafde talad til Prophetans Jeremia, þad Jerusalem skyllde Siotijge Aar j Eyde liggia.

* Juda vard laus fra Babylon, 3464 Aarum epter Upphaf Veralldarennar, fyrer Christi Fæding 497.

3. Og eg snere mier til DROTTins Mijns Guds, ad bidia Hann, og graatbæna, medur Fostum, j Seck og Osku.

4. Enn eg bad til DROTTins Mijns Guds, vidurkiennde, og sagde. O DRottinn! Þu hinn Mikle og hinn Hrædelege Gud, halldande Saattmaalann og Miskunseme vidur þa sem þig elska, og þijn Bodord vardveita!

5. Vier hofum Syndgast, og giort Oriett, vier hofum vered Ogudleger, og falled fra Þier, vier hofum burtviked af þijnum Bodordum og Riette.

6. Vier hlyddum ecke þijnum Þienorum, Spaamonnunum, þeir ed j þijnu Nafne Predikudu vorum Konungum, Hofdingium, Fedrum, og ollu Folke j Landenu.

7. Þu DROTTinn! ert Riettlaatur, enn vier meigum skammast vor, so sem ad nu geingur þad þeim af Juda og j Jerusalem, og ollum Israel, bæde þeim sem nærre og fiærre eru, j ollum Londum, þangad ed Þu hefur j burt reked þa, fyrer þeirra Misgiorninga Saker, sem þeir hofdu a mote Þier broted.

8. Jaa, DROTTinn! vier sialfer, vorer Kongar og Hofdingiar, og vorer Fedur, hliotum nu ad skammast vor, fyrer þad, ad vier hofum a mote Þier broted.

9. Enn Þiin, DROTTinn Vor Gud! er Miskunseminn, og Fyrergiefningenn. Þviad vier erum ordner fráfallner.

10. Og hlyddum ecke Raust DROttins Guds Vors, so þad vier geingium j hans Logmaale, hvort ed hann lagde fyrer oss, fyrer sijna Þienara Spaamennena.

11. Helldur allt Jsraels Folk yfertrad
Þitt Logmaal, og viek þar j fra, so ad þad
hlyddde ecke þinne Raust. Þar fyrer kiemur
eirnenn yfer oss su Bolvan, og Eydur, sem skri-
fadur stendur j Logmaale Mosis, Guds Þio-
nustu-Manns, ad vier hofum syndgast a
moote honum.

12. Og þaug sijn Ord hefur Hann hallded,
sem hann hefur talad j moote oss, og vorum
Doomurum, þeir ed oss aattu ad dæma,
þad Hann hefur so mikla Ogiæfu yfer oss
koma laated, þad hennar Lijke er ecke skiedur
under ollum Himne, so sem þad skied er yfer
Jerusalem.

13. Eins lijka so sem ad þad skrifad sten-
dur j Moyses Logmaale, lijka so er oll þesse
hin mikla Ogiæfa yfer oss komenn. So til-
biadum vier og ecke eirnenn DROTTinn
Vorn Gud, so þad vier snerunst j fra vorum
Syndum, og skildum þinn (a) Sannleika.

(a) (Sannleika) So ad vier hefdum kunnad ad trua, ad þijn Hootun hefde vijs og sonn vered, þvi vier truum ecke Guds Hootonum, fyrr enn vier reynum þær.

14. Þar fyrer hefur DROTTinn eir-
nenn vakande vered medur þessa O-Giæfu, og
laated hana yfer oss ganga. Þviad DRot-
tinn Vor Gud er Riettlaatur j ollum sijnum
Verkum þeim ed Hann giorer, af þvi vier
hlyddum ecke hans Raust.

15. Og nu DROTTinn Gud Vor! Þu
sem utleidder Þitt Folk af Egyptalande med
Oflugre Hende, og giorder þier eitt Nafn,
epter þvi sem ad nu er þad, Vier hofum
syndgast, og hofum, þess verr! vered Ogud-
leger.

16. Æ DROTTinn! vegna alls Þijns
Riettlætis, Snu þu burt þinne Reide og
Grimmd fra þinne Borg Jerusalem, og þijnu
hinu Heilogu Fialle! Þviad vegna vorra
Synda, og fyrer Misgiorninga saker Fedra
vorra, ber Jerusalem, og þitt Folk, Smaan
hiaa ollum þeim sem hier j kringum eru.

17. Og nu, Gud Vor! Heyr þu Bæn
þijns Þienara, og hans Akallan, og aalijtu
Milldelegana þinn Helgedom sem foreyddur
er, fyrer saker DROTTins.

18. Hneig Þu Þijn Eyru, Minn Gud! og
heyr þu! Uppluk þijnum Augum, og siaa þu!
Hvorsu þad vier erum j Eyde lagder, og Su
Borgenn sem epter þijnu Nafne er kollud.
Þviad vier liggium fyrer þier med voru Bæ-
na-aakalle, ecke uppa vort Riettlæte, helldur
uppa þijna Storu Miskunseme.

19. Æ DROTTinn, Heyr Þu! Æ
DROTTinn! vertu Miskunsamur, Æ
DROTTinn! Hygg ad, og gior þad, og
drag þad ecke undann, Þijns sialfs vegna,
Minn Gud! þviad þijn Borg, og þitt Folk er
nefnt epter Þijnu Nafne.

II. 20. Enn þa eg enn nu so talade, og badst
fyrer, og vidurkiennde mijnar Synder, og
mijns Folks Jsraels, og laa med Bæn minne
fyrer DROTTne Gudi Mijnum, vegna
þess hins Heilaga Fiallsins Mijns Guds.

21. Under eins sem eg so talade j minne
Bæn, þa flaug Sa Madur Gabriel þangad,
hvorn ad eg hafde aadur j Syn sied, og hann
aa-hrærde mig um Tijma Kvolld-Offursins.
Og hann undervijsade mier, og talade vid
mig, og sagde.

22. Daniel! Nu em eg sendur til ad un-
dervijsa þier. Þviad þann Tijd þu (b) tokst
til ad bidia, þa utgieck þetta Bod, og eg kom
þar fyrer hingad, ad eg kunngiore þier þad
sama, þviad þu ert Kiær, og Mikels verdur.

(b) (Tokst til) Merk! ad vor Bæn er allareidu bænheyrd, þa vier tokum til ad bidia.

23. Þvi hygg nu ad, so ad þu skilier
Sionena.

24. Siotijgu Vikur eru aalycktadar yfer
þitt Folk, og yfer þijna Heilogu Borg, þa
mun Yfertrodslunne hamlad, og Syndenn
jnnsiglud, og Misgiorningurenn forlijkast,
og þad ed Eylijfa Riettlæted til fært verda, og
Sionernar, og Spaadomarner munu (c) jnn-
siglast, og Hinn Allra-Heilagaste mun þa
Smurdur verda.

(c) (Innsiglast) Þad er, Til lyktast, burt takast, og fullkomnast, so sem sa Hlutur sem er ute, og skal eirn Enda hafa.

25. So vit nu, og merk þu þar uppa, J fra þeim Tijma, nær ed þad Bod utgeingur, ad Jerusalem skule upp aptur byggd verda, allt til Hofdingians Christum, þa eru Sio Vikur, og Tvær og Sextijgu Vikur, þa verda Strætenn og Murveggerner upp aptur byggder, þo þad sie a Sorgarlegum Tijma.

26. Og ad lidnum þeim Tveimur og Sextiju Vikum, þa mun Christur upprættur verda, og (d) vera ecke meir. Og eitt Folk þess (e) Hofdingians mun koma, og Borgena, og þann Helgedomenn j Eyde leggia, so ad þad mun þa eirn Enda taka, so sem fyrer annad Vatns-Flood, og allt til Enda þess Bardaga skal þad j Eyde blijfa.

(d) (Vera ecke meir) Þad er, Hann mun ecke vera j Moses Veralldlegre Rijkis Stiorn, þviad Hann uppbyriar eitt Himneskt Rijke.

(e) (Folk þess Hofdingians, Þad er Keysarans, sem þa mun vera Einvallds-Heera i Heimenum, þad eru Romveriar.

27. Enn morgum mun hann stadfesta Saattmaalann um eina Viku, Og midt j þeirre Vikunne mun Fornsæringenn og Matoffred afleggiast, Og * j hiaa þeim (f) Vængiunum mun standa Svijvirding Forcydslunnar, Og þad er so aalycktad, ad Menn skule utausa Eydeleggingu yfer þa, allt til Endingar. * Matth. 24, 15. Marc. 13, 14. Luc. 21, 20.

(f) (Vængiunum) Þad er, Þar sem Cherubim stauda j Musterenu.

## X. Capitule.

Daniel (I) ser Einn Mann, og skelfest; Enn er (II) Hughreystur og Huggadur af Einum Eingle.

I. 1. Aa Þridia Aare Kongsins Cyri ur Persia, vard Daniele (sa ed kalladest Balthazar) nockud þad openberad sem vijst er, og af mikels-hattar Efnum, Og hann hugsade epter þvi, og merkte þa Syn fullvel.

2. J þann sama Tijma var eg Daniel syrgiande j Þriar Vikur.

3. Eg neytte ongrar lystelegrar Fædslu, Kiot og Vijn kom ecke j minn Munn, og ecke smurda eg mig helldur, þangad til ed þær Þriar Vikurnar voru umlidnar.

4. A þeim Fiorda og Tuttugasta Deige hins Firsta Maanadar, var eg j hiaa þvi Mikla Vatnenu Hidekel.

5. Og eg hoof mijn Augu upp, og saa, og Sioa þu! Ad þar stod eirn Madur j Lijn-Klædum, og hafde Gull-Linda um sijnar Lendar.

6. Hans Lijkame var sem eirn Turkois, hans Andlit so sem Ellding, hans Augu sem logande Lios, hans Armlegger og Fætur sem (a) gloande Malmur, Og hans Maal-Romur var lijka sem eirn mikell Nidur.

(a) (Gloande) Leiptrande, klaar, poleradur.

7. Og eg Daniel saa soddan Syn alleina, og þeir Menn sem hiaa mier voru saau hana ecke, þo fiell þar ein mikel Hrædsla yfer þa, so ad þeir flydu, og foldu sig.

8. Og eg var eirnsamann epter, og saa þessa enu miklu Syn. Enn þar vard eckert Afl j mier, og eg vard miog afskaplegur, og hafde ongvann Krapt meira.

9. Og eg heyrde hans Rædu, og j þvi, ad eg heyrde hana, leid eg nidur a mijna Asionu til Jardar.

II. 10. Og sioa þu! ein Hond aahrærde mig, og reiste mig upp a Knien, og Hendurnar.

11. Og sagde til mijn, Þu Astudlege Daniel! Merk þau Ord er eg tala vid þig, og riett þig upp, þviad eg em nu sendur til þijn. Og þa ed hann talade soddan vidur mig, riette eg mig upp, og skalf.

12. Og hann sagde til Mijn, Hrædst þu ecke Daniel! þviad j fra þeim firsta Deige, þa ed þu gyrntest af Hiarta ad saa Skilning, og þa þu þioader þig fyrer þijnum Gude, þa eru þijn Ord heyrd, og eg em þinna vegna hingad komenn.

13. Enn (b) Hofdingenn Rijkesins j Persia-Lande hefur staded j moote eirn Dag og Tuttu-

Tuttugu, og sioa þu! Ad Michael, eirn af þeim ædstu Hofdingium kom mier til Hioalpar, þa hiellt eg Sigrenum hioa Kongunum j Persia.

(b) Einn Konunglegur Hofgards-Dlofull.

14. Enn nu kiem eg ad undervijsa þier, Hvornenn þijnu Folke mune veita hier epter, þviad Þesse Syn mun skie epter nockra Tijma lidna.

15. Og sem hann talade soddann vid mig, sloo eg mijnu Andlite nidur til Jardar, og þagde.

16. Og sioa þu! Ad Eirn, lijka sem eirn Madur, aa-hrærde mijnar Varer. Þa lauk eg mijnum Munne upp, og talade, og sagde til þess sem fyrer mier stood, Minn Herra! Mijn Lidamot skioalfa af þessare Syn, og eg hefe ongvann Krapt framar meir.

17. Og hvornenn kann Þion mijns Herra ad tala vid minn Herra, med þvi, ad þar er nu eingenn Kraptur j mier, Og eg hefe ei Andardraatt framar meir?

18. Þa a-hrærde mig eirn aptur, lijka sem eirn Madur ad Yferlit, og stirkte mig.

19. Og sagde, Ottast ecke, þu Elsku-Madur! Fridur sie med þier, og vert Hughraustur! vert Hughraustur! Og sem hann talade so vid mig, Hreysta eg mig, og sagde, Minn Herra! tala þu, þvi þu hefur mig stirkvann giort.

20. Og hann sagde, Veitstu nockud hvar fyrer ad eg em kominn til þijn? Nu vil eg j burt aptur hiedann, og beriast vidur Hofdingiann j Persia Lande. Enn nær ad eg fer j burt, sioa þu! Þa mun koma Hofdingenn ur Grick-Lande.

21. Þo vil eg kunngiora þier hvad þar stendur skrifad, þad vissulega mun skie, Og þar er eingenn sem mier hioalpar moot þinum, utann ydar Hofdingenn Michael.

22. Þviad eg veitte honum eirnenn Lid, a þvi Firsta aare Darij j Meden, so þad eg hioalpade honum og stirkte hann.

23. Og nu vil eg kunngiora þier hvad skie skal Visselega.

# XI. Capitule.

Daniel talar (I) Um Hernad þess Sijdarsta Persa Konungs i Grick-Lande; Og (II) um Hernad nockurn moote Egypta-Lande.

I. Sioa þu! Þrijr Kongar munu enn nu j Persia Lande standa, enn Sa hinn (a) Fiorde mun meira Rijkdom hafa enn aller þeir adrer, Og nær ed hann er j sijnu Rijkedæme sem megtugastur, þa mun hann alla uppvekia a moote þvi Kongs-Rijkenu j Grick-Lande.

a) Xerxes.

2. Þar epter mun upp standa eirn megtugur (b) Kongur, og yfer-drottna med miklu Vellde, og hvoriu-hellst ed hann vill þvi mun hann til vegar koma.

(b) Alexander hinn Mikle.

3. Og nær ed hann er sem hærst upp komenn, þa mun hans Rijke j sundur bresta, og sier j þa Fiora Vinda Himensins j sundur skipta, Eige þo uppa hans Epterkomendur, ei helldur eirnenn med soddan Magt sem hans hefur vered, þvi hans Rijke mun upprætast, og annarlegum ad Hlutskipte verda.

4. Og sa (c) Kongurenn moote Sudrenu, sem er eirn ut af hans Hers-Hofdingium, mun megtugur verda, enn j moote honum mun og eirn Megtugur vera, og yfer-drottna, hvors Velldis-Stiornan mun mikel vera.

(c) Ptolomeus Lagus, Seleucus, Nicanor.

II. 5. Enn epter nockur aar lidenn, munu þeir Vinaattu giora sijn a millum. Og (d) Dotter þess Kongsins moote Sudrenu mun koma til hins Konungsins moote Nordrenu, Eindrægne ad giora, enn hun mun ecke blijfa vid Magt þess Armleggsins. Þar ad auk eirnenn mun hennar Sæde ecke standa, helldur mun hun ofurseliast, aasamt þeim sem hana hafa þangad haft, og medur Barnenu, og þeim sem hana hafde um Stundar-Saker megtuga giort.

(d) Bernice, Ptolomei Philadelphi Dotter. Antiochus Theos.

6. Enn

6. Enn (e) Kvisturenn eirn af hennar Rootum mun upp koma, sa mun koma med O-grynne Her, og innfalla j Kongsins (f) Festing af Nordrenu, og þad mun hann frammkvæma, og Sigurenn vinna.

(e) Ptolomeus Evergetes, Bernice Broder. Seleucus Gallinicus. Antiochus Hierax.

(f) Festing kallar hann hier Kongs-Rijked.

7. Hann mun eirnenn þeirra GUde og Lijkneskiur, med kostulegum Dyr-Gripum, bæde af Gulle og Silfre, burt flytia j Egypta-Land, og um nockur Aar vid staded gieta þeim Kongenum moote Nordrenu, og nær ed hann hefur j giegnum fared Kongs Rijke þess hins sama, þa (g) mun hann jnn ferdast aptur j sitt Land.

(g) (Mun) Þad er, Hann mun ecke blijhallda Kongs-Rijkenu, hvad hann hefde vel gietad.

8. Enn hans Syner (h) munu reider verda, og mikla Herlide til samans safna, og eirn þeirra mun koma, og lijka sem Vatns-Flood þar framm dynia, og hina aptur a moot fyrer sijnum Festingum oa-reita.

(h) Antiochus hinn Mikle, og hans Broder Seleucus Ceraunus.

9. Þa mun Kongurenn moot (i) Sudrenu gremiast, og utfara, og beriast (k) vidur Kongenn moote Nordrenu, og mun so stooranu Folks Fiolda til samans draga, so þad hinn Flockurenn mun honum j Hendur seliast.

(i) Ptolomeus Philopator.

(k) Antiochus Magnus.

10. Og þann sama Flockenn mun hann j burt flytia. Þar ut af mun hans Hiarta upphefia sig, ad hann hefur so margar Þusunder vid Velle lagt, Enn þar med mun hann ecke Magt yfer honum foa.

11. Þviad Kongurenn moote (l) Nordrenu mun enn aptur mikenn Folks Fiolda til samans draga, miklu meira þeim hinum fyrra, Og epter nockur oar lidenn, þa mun hann framm bruna med mikenn Strijds-Her, og med miklum Rijkdoome.

(l) Sa same Antiochus hinn Mikle.

12. Og a þeim Tijma munu marger setia sig j giegn þeim (m) Kongenum moote Sudrenu, So munu eirnenn nockrer Roangsnuner ut af þijnu Foolke taka sig upp, Spoa-Søguna ad fylla, og þeir hiner sømu munu falla.

(m) Ptolomeus Epiphanes.

13. Þa mun Kongurenn moote (n) Nordrenu frammfara, og Hervirke giøra, og (o) Sterkar Borger vinna, og þeir Armlegger Sudursins munu ei foa þvi vared, og þad hid besta Folk mun eige kunna þvi j moote ad standa.

(n) Sa Mikle Antiochus moote Ptolomeo Epiphane.

(o) (Sterkar Borger) Ecke j Egypta-Lande, helldur j Syria, og j Stødunum j Juda-Lande, sem aadur fyrre heyrdu Ptolomeo til.

14. Helldur mun hann, þa ed hann kiemur honum nær, þad giøra sem honum lijkar, og eingenn mun honum j moote staded gieta. Hann mun og eirnenn jnnkoma j þad (p) Verduga Landed, og mun þad fullgiøra fyrer sijna Hond.

(p) (Verduga Landed) Antiochus hinn Mikle giørde Gydingum stoora Æru, af þvi ed þeir hialpudu honum moote Ptolomeo Epiphane, ad vinna alla Syriam.

15. Og mun sinne Augsyn venda þar til, þad hann kome medur Magt alls sijns Rijkis. Enn hann mun forlijkast vidur hann, og mun giefa honum (q) sijna Dottur til Eignar Kvinnu, ad hann fordiarfe hann so, enn þad mun honum ecke luckast, og þar mun ei af verda.

(q) (Sijna Dottur) Cleopatra.

16. Þar epter-a mun hann snua sier j moot Eyunum, og yfer vinna margar af þeim. Enn eirn (r) Hofdinge mun kienna honum ad laata af hans Forsmoan, so ad hann forsmoae hann ecke leingur.

(r) Þeir Romverskir sooktu Asiam fra Antiocho.

17. So mun hann sier aptur snua til Festingar sijns Lands, og mun reka sig þar oa, og (s) nidur falla, so þad hann mun hvorge fundenn verda.

(s) (Nidur falla) j Elimaide j Persia var hann slegenn.

18. Og j Stadenn hans mun eirn uppkoma,

ma, sa mun j Konunglegre Tign sitia sem (t) Ploogare, enn epter foa-eina Daga mun hann j sundur brotna, þo hvorki fyrer Reide nie Bardaga.

(t) Seleucus Philopator, sem ecke giørde neitt Hof, dingleaa, og ploogade Folked.

19. J hans Stad mun uppkoma eirn (u) fyrerlitenn Madur, hvorium þad su Konungleg Tign var ecke fyrerhugud. Sa mun koma, og þad luckast honum, og þad sama Kongs Rijked medur Miuk-Mælum under sig leggia.

(u) Antiochus Epiphanes, betur fallenn til Skielmers enn til Kongs.

20. Og hiner (x) Armleggerner, þeir ed þangad runnu sem Vatn, munu af honum, lijka sem ødrum Ar-Fosse, yferbugadir og sundur brotner verda, þar med eirnenn sa Hofdingenn vidur hvørn þad (y) Saattmaalenn var giørdur.

(x) (Armleggerner) Kongsins af Egypta-Lande, Hofuds-Menn j Syria.
(y) (Saattmaalenn) Ptolomous Philometor, Antiochi Systur Son. Antiochus Epiphanes.

21. Þviad epter þad hann hefur Vinaattu giørt vidur hann, þa mun hann svikſamlega breyta vidur hann, og mun ferdast þar upp, og hann med foa-einu Folke yferbuga.

22. Og þad sama mun honum luckast, so þad hann mun koma j þær bestu Borger Landsins, og mun þvi so til vegar koma, sem hvørke hans Fedur, nie Forelldrar feingu giørt, medur Raanum, Gripdeilldum, og Ut-bytingu, og hann mun stunda epter þeim sterkustu Borgum, og þad sama um nockra Stund.

23. Og hann mun sijna Magt, og sitt Hiarta, uppvekia j giegn þeim Kongenum moot Sudrenu med miklum Strijds-Krapte. Þa mun sa Kongureñ moote Sudrenu upphvattur verda til Bardaga, med miklu og megtugu Herlide, Enn hann mun ecke vidstaded gieta, þviad Svijkræde munu vid hann giørd.

24. Og þeir hiner sømu sem hans Braudbijtar eru, þeir munu stirkia til ad fyrerkoma honum, og hans Herlide nidur ad þrickia, so þad nærsta marger munu jhel slegner verda.

25. Og þeirra beggia Konganna Hiortu munu þeinkia Hvørnenn hellst þeir kunne hvør ødrum Skada ad giøra, og munu þo vid eitt Bord med Underhyggiu hvør vid Annann tala, enn þad mun þeim ecke vinnast, Þviad Endenn er uppa eirn Annañ Tijma aalyktadur.

26. Epter þad mun hann fara heim aptur med miklu Gotse, Og sijnu Hiarta venda j moote þeim Heilogum Saattmaala, þar mun hann nockru af Stad koma, og svo sijdann heim fara j sitt Land.

27. Epter þad mun hann j hentugann Tijma fara jnn aptur j moote Sudrenu, enn hønum mun þad j Annad Sinn ecke so luckast sem j Fyrra Sinne.

28. Þviad Skipenn ut af Chitim munu j moote hønum koma, so þad hann mun orvænta sier, og hliota aptur ad snua. Þa mun hann gremiast j giegn þeim Heilaga Saattmaala, og mun þad fullgiøra, og sig þar um skoda, og þa hina sømu til sijn lada sem yfergiefa þann Heilaga Saattmaala.

29. Og hans (z) Armlegger munu þar standa, Þeir munu og saurga Helgedoomenn j Borgenne, og þad Daglega Offrid af taka, og eina Svijvirding Foreydslunnar uppsetia, og hann mun med Smiadur-Hræsne fara, og og vidur þa Ogudlegu, sem Saattmaalann yfergiefa, mun hann Fagurmæle hafa.

(z) (Armlegger) Hans Hofuds-Meñ og Magtar-Meñ.

30. Enn þad * Folk sem sinn GUD vidurkienner mun upphvetia sig, og frammkvæma þad.

* Þetta er Judas Maccabeus og hans Brædur og Tilheingiarar.

31. Og þeir hiner Skinsømu a medal Folksins munu morgum ødrum kienna, Fyrer þad munu þeir falla fyrer O-Fridar-Sverde, Ellde, Herleidingum, og Raane, nockra Stund.

32. Og þa þeir so falla mun þeim þo samt ein lijtel Hiaalp veitt verda. Enn marger munu med Flaarræde giefa sig til þeirra.

33. Og þeir hiner Skinsømu munu nockrer falla, uppa þad þeir reynder, hreiner, og klarer verde, þangad til ad þad hefur eirn Enda, þviad þar er nu einn Annar Tijmi fyrer Hondum.

XII. Ca-

# XII. Capitule.

Daniel talar (I) um Breytne eins Ogudlegs Herra; So og (II) um Ender allra Hluta.

I. Og sa (a) Kongurenn mun giora hvad hann vill, og hann mun taka sig upp og upphefia sig a moote þvi ollu sem GUD er, og j moote þeim GUDe allra Gudanna mun hann hrædeligana tala, og þad hid sama mun honum takast, þangad til ad su Reidenn er ute, þviad þad er urskurdad hvorsu leinge ad þad skule vera.

(a) (Kongurenn) Hier snyr Eingellenn sinne Rædu uppa Anta-Christenn, under Antiochi Epiphanis Personu, Og hier taka til þau Innsigludu Ordenn, um hvor hann talar j Endingunne.

2. Og um (b) Gud Fedra sinna mun hann ei skeita, Hann mun hvorke um (c) Kvenna ast, nie um nockurn Gud hirda, þviad hann mun taka sig upp j mote ollum.

(b) (Gud Fedra) Aller adrer Guder, eirnenn hans Fedra Gud, munu ongvu nyter, enn hans eigenn Gud skal gillda.

(c) (Kvenna ast) Hann vill so miked sagt hafa, ad hann mune framm fara j þeim Onatturlega Leste, sem Guds Foracktara astriider, Rom: 1. E: sem Menn kalla Sodomita Synd, þviad Ecktaskap og þa riettu Elsku edur Ast af Kvinnunne skal hann ecke hafa, so sem þad geingur j allann hrædelegasta Mata til under Pavanum og Tyrkiannm.

3. Enn j stadenn þess, mun hann sinn sialfs eigenn Gud (d) Maosim heidra, þviad hann mun einn Gud, sem hans Fedur hafa ecke af vitad, heidra med (e) Gulle, Silfre, Gimsteinum, og Diirindis-gripum.

(d) Maosim, heiter Festing edur Virke, Præsidia, sem Menn kalla Slot, edur Stade. Og Daniel hefur opt þetta Ord adur j þeim 11. E: So heiter nu Gud Maosim riettelega Stirktar-Gud, Deus præsidiorum.

(e) (Med Gulle) Eirn Annar Gud, hvor ed ongva adra betre Virding hefur enn Gull og Silfur.

4. Og hann mun þeim sem honum hialpa til Maosim ad efla, medur þeim annarlegum Gude, hvorn hann hefur sier utvaled, miklar Sæmder veita, og þa ad Herrum giora yfer miklu Gotse, og Landenu ad Verdlaunum medur þeim utskipta.

5. Og ad Lyktunum mun Kongurenn mot Sudrenu beriast vidur hann, Og sa Kongurenn mote Nordrenu mun utbua sig mote honum, medur Vognum, Riddorum, og Skipa-Fiolda, og mun jnnfalla j Londenn, fordiarfa þau og yfersara.

6. Og hann mun jnn briotast j þad Verduga Landed, og marger munu tijnast. Enn þesser munu ur hans Hondum umflya, Edom, Moab, og þeir Frumburder af Bornum Ammon.

7. Og hann mun sijna Magt utsenda j Londenn, og Egyptaland mun ecke undann honum komast.

8. Helldur mun hann fyrer sijna Yferferd drottna yfer Gulle, og Silfre, og yfer ollum Fiearsiodum Egyptalands, Lybie og Morlands.

9. Enn eitt Hroop mun skielfa hann, ur Austre og Nordre, Og hann mun med mikellre Grimmd utfara, verande þess Sinnis, marga ad asmoa og fordiarfa.

10. Og hann mun Landtiallde sinnar Hallar uppsloa a millum Tveggia Sioafar-Hafa, j kringum þad Verduga Heilaga Fiallled, þangad til þad er utendad um hann, og eingenn mun honum til Fulltingis koma.

11. A þeim Tijma mun Sa hiñ Mikle Hofdinge Michael, sem fyrer þijnu Folke stendur, taka sig upp, þviad þad mun slijk Hormungar Tijd vera, sem ei nockurn Tijma hefur vered, j fraa þvi þad Menn toku ad vera, allt til þess Tijma. Og a þeim sama Tijma mun þitt Folk frelsad verda, aller þeir sem skrifader standa j Bokenne.

II. 12. Og marger af þeim sem under Jordunne liggia, og sofa, munu uppvakna, sumer til Eylijfs Lijfs, sumer til Eylijfrar Skammar og Smanar.

13. Enn þeir sem kienna munu skijna sem Himensins Geislar, og hiner sem morgum

 viisa

vijsa til Riettlætesins, lijka sem Stiornur um Alldur og ad Eylijfu.

14. Og þu Daniel! Byrg þu þesse Ord, og Innsigla þessa Skrift, Allt til þess hins Sijdarsta Tijma, þa munu marger þar yferkomast, og mikenn Vijsdom finna.

15. Og eg Daniel saa, og Sioa þu! Ad þar stodu Tveir Adrer, Eirn þessumeigenn Vatnsins, hinn Annar hinumeigenn.

16. Og hann sagde til Þess sem j Lijnenu var klæddur, hvor ofan til stod hioa Vatnenu, Hvønær mun Ender vera a slijkum Stormerkium?

17. Og eg heyrde til Þess sem Lijnenu var klæddur, sa ofann til vid Vatned stod, Og hann hof upp sijna Hægre og Vinstre Hond til Himens, og sor vidur Þann sem Eylijflegana lifer, Ad þad skule vara um eirn Tijma, og nockra Tijma, og haalfann Tijma. Og nær ad su Sundurdreifing þess Heilaga Folksins hefur Enda, þa skal allt þetta skie.

18. Og eg heyrde þad, enn eg skilde þad ecke, og sagde, Minn Herra! Hvad mun þar epter verda?

19. Enn hann sagde, Gack þu hiedann Daniel! Þviad þad er byrgt og Innsiglad, allt til hins Sijdarsta Tijma.

20. Marger munu Hreinsader, Klaarader og Reynder verda, og hiner Ogudlegu munu Ogudlega Breytne hafa, og hiner Ogudlegu munu ecke um þad skeita. Enn hiner Skinsomu munu þess giæta.

21. Og j fra þeim Tijma, nær þad Daglega Offred aftekst, og Svijvirding Foreydslunnar verdur innsett, eru Þusund, Tvo Hundrud, og Nijutijger Dagar.

22. Sæll er sa sem epter bijdur, og naad gietur, Þusund, Þriuhundrud, Fimm og Þriatiju Dogum.

23. Enn þu, Daniel! Far hiedann, þangad til þad Enderenn kiemur, og hvijl þig, þad þu uppstander til þijns Hlutskiptis a Endanum þeirra Daga.

Ender Prophetans Danielis.



# Formaalenn yfer Prophetann Hoseam.

Hoseas hefur lifad, og sitt Predikunar Embætte flutt (sem hann siaalfur j Upphafi Maalsins aavijsar) a Dogum Jeroboam þess Annars og sijdarsta Israels Kongs med þvi Nafne. Samtijdis og þeir Esaias, og Amos, og Micheas lifdu. Enn þo hefur Hoseas vered þeirra Elldstur.

So var nu Jeroboam eirn Agiætur og Farsæll Kongur, sa miklu godu kom til vegar j Israels Rijke, sem vottar Onnur Book Konganna, j Fiortanda Cap: Enn þo hiellt hann samt Afguda-Dijrdkan sinna Forfedra, Israels Konga. So ad Sannarlega hafa j þann Tijma marger merkeleger Menn vered med þvi Folke, þo hafa þeir ecke gietad giørt þad Folk fromt. Þviad Diøfullenn hafde þa Hiartans Sorg uppbyriad med þessu Folke, ad þeir draapu jafnann Spaa-Mennena, og brenndu sijn Børn fyrer Skurgodunum, og fylltu so Landed med Blood-Skulld. So sem hann j Firsta Cap: Þess vegna Ognar og Hootar Jesreel.

Enn þad er so ad siaa, so sem ad þesse Spaadoomur Hoseæ sie ecke allur skrifadur, helldur nockrar Greiner so sem samann teknar ur hans Predikunum, og j eina Book samsettar, Enn so miked maa þar inne siaa og finna. Firsst Þetta, ad hann predikar miøg hardlega j moote þeirra Afguda-Dijrdkan, og straffar Folked alvarlega, bæde Kongenn, Hofdingiana og Kiennemennena, hvad Honum hefur (lijka sem odrum) vissulega ad Alldurtila orded, so hann hefur sem annar Villu-Madur a moote Prestanum, og sem annar Upphlaups-Madur j moote Kongenum, orded ad deya. Þvi slik hefur vered Dauda Sok Spaamannanna og Postulanna, So hlaut Herrann Christus sialfur ad deya. Þar nærst hefur hann miøg miked, og hid Huggunarsamlegasta fyrer spaad ut af Christo, og hans Rijke, sem þar stendur j Odrum, Þrettanda, og Fiortanda Cap:

Enn þar hann svo opt nefner Hooru, og Hoordom, Og j Firsta Cap: tekur eina Hooru sier til Eigennkvinnu, þa skal eingenn hugsa, ad hann hafe j Ordum edur Verkum svo Otierlegur vered. Þviad hann talar Andlega, og þesse Hoora hefur vered hans ærleg

Egta-

Egta-Kvinna, og Egta-Børn hefur hann ꜳtt med henne. Helldur þa hefur þesse Kvinna, og hennar Børn, orded ad bera slijk Skammar Nøfn, þvi Skurgoda Folke til eins Teikns og Straffs, sem fullt var med Andlegann Hoordoom, þad er med Skurgoda-Dijrdkan, so sem hann sialfur seger j Textanum, ad Landed hlaupe fra DROTTne epter Hoordoome. Alijka sem Jeremias bar Trie-Oked og Bikarenn, Folkenu til eins Teikns. Og ꜳvollt alørdu Spꜳmenner ner nockud sialldsied, Folkenu til eins Teikns. So hefur hier hans Kvinna og Børnenn orded ad hafa Hooru Nafn, til Teikns j giegn þvi Hoordooms Skurgoda Folke, þvi ei er trulegt, ad GUD hafe skipad Prophetanum Saurlifnad ad fremia, so sem nockrer hier villia utleggia Hoseam.

# Prophetenn Hoseas.

## I. Capitule.

Her seger fra þvi Furdanlega Kvonfange Hoseæ, epter Drottens Skipan.

ÞEtta er þad DROTTens Ord, sem skiede til Hoseam, Beheri Sonar, j Tijd Usiæ, Jotham, Achas, og Ezechia, Konganna Juda, og a Tijd Jeroboams, Joas Sonar, Kongsins j Israel.

2. Og þa DROTTenn upphoof ad tala fyrer Hoseam, sagde Hann so til hans, Far þu og tak þier eina Hoor-Konu og Hooru-Børn! Þviad Landed hleypur fra DROTtne epter Hooran.

3. Og hann gieck burt, og took Gomer, Diblaims Dottur, hvor ad vard þungud, og hun fæddi honum einn Son.

4. Og DROTTenn sagde til hans, Kalla þu hann Jesreel, þvi þad er enn nu um eirn lijtenn Tijma ad giora, þa vil Eg vitia Blood-Skulldarennar j Jesreel, yfer Jehu Hus og Eg vil giora eirn Enda a þvi Kongs-Rijke Israels Huss.

5. Og a þeim Tijma vil Eg j sundurbriota Israels Boga j Jesreels Dal.

6. Og hun vard þungud j Annad Sinn, og fædde eina Dottur. Og hann sagde til hans, Lꜳttu hana nefnast (a) Lorychama, Þviad Eg vil ecke framar Miskun giora Israels Huse, Helldur vil Eg j burtkasta þvi.

(a) Lorychama þydest Naadarlaus.

7. Enn þo vil Eg Miskuna Husenu Juda, og Eg vil hiꜳlpa þeim fyrer DROTTENN þeirra GUD, Enn Eg vil ecke hiꜳlpa þeim, hvorke fyrer Boga, Sverd, Strijd, Hesta, nie Riddara.

8. Og þa hun hafde afvaned Lorychama, þa vard hun aptur þungud, og ol eirn Son. Og hann sagde, Nefndu hann (b) Loammi, Þviad Þier erud ecke Mitt Folk, so vil Eg og ecke vera ydar.

(b) Loammi, Þad er, Ecke mitt Folk, þvi hann villde um sijder yfergiefa Gydinga Folk, og skilia þad vid þeirra Kongs-Rijke, og Kiennemannsskap. Hvad og eirnenn skiede fyrer Evangelium, sem hier strax epterfilger.

## II. Capitule.

Hoseas talar (I) um Guds Naad; (II) Rettlæte, og (III) Miskunseme vid Israel.

1. OG Talann (a) Israels Barna skal vera sem Siꜳfar-Sandur, hvorn Menn kunna hvorke ad mæla nie telia. Og * þad skal skie, j þeim Stad, þar sagt var til þeirra, Þier erud ecke mitt Folk! þa skulu Menn segia þar til þeirra, O Þier Lifande GUDs Born!

* Rom. 9, 26.

(a) (Talañ Israels Barna) Þad er sagt um Christum og Evangelium, sem skyllde predikast a medal Heidingia og Gydinga, þa er þar orded eitt annad Høfud.

2. Þviad Juda Born og Israels Born skulu koma til samans, og hallda sier aller hvor med odrum, til eins Høfuds, og ferdast upp fra Landenu. Þviad Jesreels Dagur skal vera eirn mikell Dagur.

 3. Seged

3. Seged ydar Brædrum, Þeir eru Mitt Folk, og til ydar Systur, Hun sie j Naadenne.

II. 4. Seged Doom yfer ydar Modur, Hun sie ecke Mijn Kvinna, og Eg vil ecke hafa hana, skiped henne ad laata sinn Hooruskap fra sier, og hennar Hoordoom fra hennar Brioostum.

5. So ad Eg giore hana ecke nakta, og setie hana þangad aptur sem hun var, þar hun var fædd, og so ad Eg giore hana ecke sem eina Eydemork, og sem eitt þurrt Land, og Eg laate hana ecke deya af Þorsta.

6. Og siaae ecke aumur a hennar Bornum, þvi þau eru Hooru Born.

7. Og þeirra Moder er ein (b) Hoora. Og su sem fædde þau helldur sig skammarlegana, og seger, Eg vil hlaupa epter mijnum Filgiu-Monnum, sem giefa mier Braud, Vatn, Ull, Lijn, Vidsmior, og Drick.

(b) (Hoora) Þad er, Hun þionar Afgudum.

8. Þar fyrer siaa þu! Eg vil apturbyrgia þinn Veg med Þyrnum, og hlada eirn Vegg þar fyrer, so hun finne ecke sijna Stigu.

9. Og þa hun hleypur epter sijnum Filgiu-Monnum, ad hun ecke naae þeim, og þa hun leitar epter þeim, (c) ecke finne þa, og hliote ad segia, Eg vil snua aptur til mijns Firsta Manns, þar eg aatte betra enn nu aa eg.

(c) (Ecke finne) A medan Afguda Dijrdkendur hafa Lucku, þa ætla þeir, þeir mune hafa þad forþienad med sinne Afguda-Dijrdkun, þangad til ad Mootlæted kiemur, Þa hliota þeir ad akalla þann Rietta GUD um Naad alleina.

10. Þvi hun vill ei vita, ad Eg er Sa sem giefur henne Korn, Vijn, og Vidsmior, og ad Eg hefe giefed henne miked Silfur og Gull, þad hun hefur haft Baal til Dijrdar.

11. Þar fyrer vil Eg taka mitt Korn og Vijn aptur a sijnum Tijma, og frasnua minne Ullu og Lijne, med hvoriu hun hulde sijna Blygdan.

12. Enn nu vil Eg uppsletta hennar Skomm fyrer Augum hennar Filgiu-Manna, og eingenn skal frelsa hana fra Minne Hende.

13. Og Eg vil giora eirn Enda a allre hennar Glede, Haatijdum, Tunglkomum, Sabbaths-Dogum, og ollum hennar Helge-Dogum.

14. Eg vil eydeleggia hennar Vijn-Trie og Fijkiu-Trie, First hun seger, Þad eru mijn Laun, sem mijner Filgiu-Menn giefa mier. Eg vil giora eirn Skoog þar ut af, so ad Villu-Dyrenn skulu uppeta hann.

15. So vil Eg vitia yfer hana þeirra Baalims Daga, hvorium hun giorer Reyke-Offur, og pryder sig med Ennis-Spongum og Haals-Bondum, og hleypur epter sijnum Filgiu-Monnum, og gleymde mier, seger DROTTENN.

III. 16. Þar fyrer siaa þu! Eg vil locka hana, og Eg vil leida hana j Eydemork, og tala (d) vinsamlega til hennar.

(d) (Vinsamlega) Þad er Þad ægiæta Evangelium.

17. Þar vil Eg giefa henne af þeim sama Stad, hennar Vijn-Gard, og (e) Achors Dal, til ad upplaata Vonena. Og þar skal hun syngia, sem a sijnum Æsku-Tijma, þa hun foor ut af Egypta-Lande.

(e) (Achors Dal) Þad er. Þad Gyllene Hag-Lended, þar sem Hriggdarennar Kross er, og þo lijka Christi Huggunarsama Ord, hviad Achor þyder Hormung edur Kross, þar ed Menn predika ecke Annad enn osynelega Hlute, hvorra Menn hliota ad vona.

18. Þa, seger DROTTenn, skalltu kalla mig, Minn Madur, og þu skallt ecke meir kalla mig, Minn Baal.

19. Þvi Eg vil burt taka Baalims Nafn af þeirra Munne, so Menn skulu ecke meir minnast a þad Nafn.

20. Og a þann Tijma vil Eg giora þeim eirn (f) Saattmaala vid Dyrenn a Morkenne, vid Fuglana under Himnenum, og vid Skrid-Kvikendenn a Jordunne, og Eg vil j sundurbriota af Landenu Boga, Sverd og Strijd, og Eg vil laata þa bua tryggelega.

(f) (Saattmaala) Þad er, Samvitskunnar Saattmaala og Frid fyrer Truna a Christum, hvorre eingenn Madur nie eingenn Hlutur kann ad granda.

21. Eg

21. Eg vil trulofa Mig þier ad Eylijfu, Eg vil trulofa þig Mier j Riettlæte og Doome, j Naad og Miskunseme.

22. Joa, Eg vil trulofa Mig þier j Trunne, Og þu munt þeckia DROTTenn.

23. Eg vil Bænheyra a þeirre somu Tijd, seger DROTTenn, Eg vil Bænheyra Himenenn, og Himenenn skal Bænheyra Jordena.

24. Og Jordenn skal Bænheyra Korned, Vijned, og Vidsmiored, og þau skulu Bænheyra (g) Jesreel.

(g) (Jesreel) Þydest Guds Sæde, þad hlyder þar uppa, sem Hann seger, Eg vil bijhallda henne Mier til eins Sædis, þad er, Eg vil giora hana ad einum riettum Jesreel, og hun skal hafa Epterkomendur æfennlega, so sem su Heilaga Kyrkia skal og jafnann vara.

25. Og Eg vil hallda hana Mier til eins Sædis a Jordunne, og Miskuna mig yfer þa sem j O-Vinaattunne var, og segia til þeirra sem * ei var Mitt Folk, Þu ert Mitt Folk! Og þeir skulu segia, Þu ert Minn GUD!

* Rom. 9, 25. 1 Pet. 2, 10.

## III. Capitule.

Hoseas aatte ad unna Einne Hoor-Konu, Eins og GUD Drottenn hafde Elsku til Gydinga-Lijds, sem þa Dijrdkade Skurgod.

Og DROTTinn sagde til mijn, Gacktu enn einusinne j burt, og ligg hiaa þeirre Frillu og Hoor-Konu, lijka sem DROTTinn liggur hiaa Israels Bornum, Og þeir snua sier þo til Annarlegra Guda, og laata locka sig fyrer eina (a) Konnu Vijns.

(a) (Konnu Vijns) Fyrer Magans Skulld, Jaa Hime-Rijke! Hime-Rijke! hefde Eg hier Mivl nægelegt! segia þeir.

2. Og eg vard aasaattur vid hana um Fimtan Silfur-Peninga, og fyrer haalfann Annann Homer Byggs.

3. Og eg sagde til hennar, Halltu vid mig nockra Stund, og drijg ongvann Hoordoom, og laat ongvann Annann til þijn, Þvi eg vil og so hallda vid þig.

4. Þviad Israels Born skulu langann Tijma vera aan (b) Kongs, aan Hofdingia, aan Offurs, aan Alltaris, aan Lijf-Kyrtils, og aan Helgedooms.

(b) (Kongs) Israel naade ecke Konge aptur, epter sijna Herleiding, fyrer enn Sa riette David, Christur, allrar Veralldarennar Kongur, kom.

5. Enn epter þad skulu Israels Born umvenda sier, og leita ad DROTTne þeirra GUde, Og ad David þeirra Konge, og þeir skulu dijrdka DROTTinn, og hans Naad, j Sijdurstu Tijd.

## IV. Capitule.

Hoseas (I) straffar Israels Born fyrer Eitt og Annad Gudleyse, er tijdkadest medal þeirra i ollum Stettum, og (II) Rædur Juda Kin-Þætte fra Israels Afguda-Dijrdkan.

I. Heyred DROttins Ord Þier Israels Born! Þviad DROTTinn hefur Ordsok til ad aavijta Landsins Innbyggiara Þviad þar er Eingenn Tru, Eingenn Kiærleike, Eckert (a) Guds Ord j Landenu.

(a) (Guds Ord) Þad er, Menn kienna eckert utaf Gude.

2. Helldur Guds-Lastan, Lygar, Mord, Þiofnadur og Hoor-Doomur hafa Yfer-Road feinged, og ein Blood-Skulld kiemur epter adra.

3. Þvi skal Landed standa aumlega, og þess Innbyggiurum skal ollum jlla vegna, Þvi Dyrenn a Morkenne, og Fuglarner under Himnenum, og Fiskarner j Hafenu, skulu j burt tekner verda.

4. Þo þora Menn hvorke ad aavijta, nie nockurn ad straffa, Þviad þitt Folk er so sem þeir ed straffa Prestana

5. Þvi skalltu falla a Deigenum, og Spaamadurenn skal falla a Nottunne hiaa þier, So vil Eg svipta þinne Modur j burtu.

6. Mitt Folk er j burt, sokum þess þad vill ecke (b) læra. Þvi þu burt kastar Guds Orde, þar fyrer vil Eg og burt kasta þier, ad þu

skallt ecke vera Minn Prestur. Þu forgleymer Guds þijns Logmaale, þar fyrer vil og Eg forgleyma þijnum Bornum.

(b) (Læra) Þad er, Ad heyra Predikun um Gud.

7. Þess fleyre þau verda, þess meir syndgast þau a moote Mier, þar fyrer vil Eg giora þeirra Æru til Skammar.

8. Þau (c) upp eta Synda-Offur mijns Folks, og hafa Gyrnd til þeirra Synda.

(c) (Uppeta) Þeir munu fastlega frammfylgia sinne Guds Þionustugiørd, enn munu þo lijted þar a hafa ad eta, so sem þeir Anta-Christianisku a þessum Tijmum villdu giarnann hæatt hefia Messuna, enn þad mun ecke luckast so vel, sem ꝺdur fordum.

9. Þar fyrer skal þad ganga Folkenu, lijka sem Prestunum, þvi Eg vil heimvitia þeirra Giorninga, og launa þeim so sem þeir forþiena.

10. Ad þeir ete og ecke verde metter, fremie Hoordooma, og þad skal ecke luckast þeim, þvi þeir forlietu DROTTinn, og sinntu Honum ecke.

11. Hoordoomar, Vijn, og Must, giorer Menn galda.

12. Mitt Folk adspyr sitt Trie, og þess Stafur skal predika fyrer þvi, þviad Hoorunar Ande viller þa, so þad þeir fremia Hoor a moote sijnum GUde.

13. Þeir Fornfæra uppa Fiollunum, og giora Reykelse a Hædunum under Eykenne, Lindenne og Beyke-Trienu, þviad þau hafa sijnann Skugga. Þar fyrer skulu og so ydar Dætur verda Hoorur, og ydar Bruder Hoor-Konur.

14. Og Eg vil ecke afstyra þvi, þa ydar Dætur og Bruder verda skammadar, og ad Hoorum verda, Fyrst þier uppsetied adra Guds Þionkan med Horum, og Offur med Skiækium, Þvi þetta heimska Folk vill vera (d) sleiged.

(d) (Sleiged) Giekkium skulu Menn hnuta med Kylfum

II. 15. Villtu Israel Hoordoom drija, so ad Juda ad eins kome ecke eirneigenn j Skulld. Ganged ei burt til Gilgal, og komed ei upp til Beth-Auen, og sveried ecke (So Sannarlega sem DROttinn lifer.)

16. Þvi Israel hleypur sem galenn Kyr, so skal og DROttinn laata hana fodrast sem eitt (e) Lamb, þad villt hleypur.

(e) (Lamb) Hvorju slaatrad verdur, epter þad þad er vel fitnad j Hagleidenu.

17. Þvi Ephraim hefur giefed sig til Afguda, so laat hann fara j burt.

18. Þeir hafa giefed sig til Ofneytslu og Hooruskapar, og þeirra (f) Herrar hafa þar Lyst til ad þeir uppreisa Skammer.

(f) (Herrar) Þad eru Kongar, Hofdingiar, og Kienne-Menn.

19. Vindurenn skal utdrijfa þa bundna med sijnum Vængium, og þeir skulu verda til Skammar yfer sijnu Offre.

## V. Capitule.

Hoseas spaaer Israels Bornum Eydeleggings, vegna þeirra Synda.

So heyred nu þetta Þier Prestarner! og Þu Israels Hus gief giætur ad! Og Þu Kongsins Hus, tak þier til Eyrna! Þvi þar skal ganga eitt Straff yfer ydur, þier sem erud ordner ein Snara j (a) Mizpa, og eitt utþaned Net j Thabor.

(a) (Mizpa) Þar hafa þeir uppsett Guds Þionustugiørd, og Afvega leidt Folked þar med.

2. Þeir dreckia sier med Sloatrunenne, j sijnum Hlaupum, þar fyrer hlyt Eg ad straffa þa alla samann.

3. Eg þecke vel Ephraim, og Israel dylst ecke fyrer Mier, ad Ephraim er nu ein Hoora, og Israel er Saurug.

4. Þeir þeinkia ei þar uppa, ad snua sier til sijns Guds, þvi þeir hafa einn Hooru Anda j sijnum Hiortum, og kienna ecke ut af DROTTne.

5. Þar fyrer skal Israels (b) Drambseme nidur þrickiast, fyrer hennar Augsyn, og bæde Israel og Ephraim skulu falla, sokum þeirra

Misgiørninga, Juda skal og falla med þeim.
(b) (Drambseme) Þeirra Guds Þionustu-giørd, uppa hvoria þeir stola og reida sig.

6. Þa skulu þeir koma med sijna Saude og Naut, ad leita DROTTins, enn finna Hann ei, þviad hann hefur snued sier fra þeim.

7. Þeir forsmaa DROTTinn, og gieta annarleg Born, þar fyrer skulu og þeirra Nyu Maanuder eta þa, med þeirra Arfdeild.

8. Jaa, Blaased j Basunur, Pier j Gibea, Jaa, Trameted j Rama, Jaa, kalled þier j Beth Auen, a bake þier BenJamin!

9. Þvi Ephraim skal verda j Eyde, a þeim Tyma þa Eg mun straffa hana, þar fyrer hefe (c) Eg trulega vidvarad Israels Ættkvijsler.
(c) (Eg) Eg hefe leinge sagt þeim þad fyrer, ad þar munde einusinne koma a vid Dagenn.

## VI. Capitule.

Hoseas talar um Juda Ættkvijsl, (I) Hennar Afvegaleidslu til þess Vonda; (II) Hennar Apturhvarf til þess Goda; og (III) Ostødugleika j Þvi Goda.

I. Hofdingiarner j Juda eru lijka sem þeir ed flytia Landamerke, þvi vil Eg uthella Minne Reide yfer þa sem odru Vatne.

2. Ephraim þoler Yfergang, og er plaagadur, þar med skiedur hann riett, þviad hann hefur giefed sig til Bodorda (Mannanna.)

3. Eg er Ephraim einn Molur, og Juda Huse einn Madkur.

4. Og þa Ephraim fann sinn Siukdom, og Juda sijn Saar, þa for Ephraim burt til Assur, og sende Bod til Kongsins j Jareb, enn hann kunne ei ad hiaalpa ydur, ei helldur ad lækna ydar Saar.

5. Þviad Eg er Ephraim sem eitt Leon, og Juda Huse sem ungt Leon, Eg, Eg sundur rijf þa, og geing burt, Eg rek þa burt, og eingenn kann ad hiaalpa þeim.

II. 6. Eg vil (a) fara til mijns Stadar aptur, þar til ad þeir þeckia sijna Skulld, og leita ad Mijnu Auglite, nær þeim geingur jlla, þa munu þeir aarla vitia Mijn (og segia).

(a) (Fara) Hier spaaer hann um Christum og Evangelium, Gydingar vilddu ecke hlyda Gude, þegar þeim gieck vel, so hliota þeir j Nya Testamentenu, ad þiona Gude under Krossenum, Þad vill so heita. Pauperes Evangelizantur, Þeir hiner Aumu heyra Guds Ord, og þeir enu Rijku akta þad einskis.

7. Komed! Vier vilium aptur til DROTtins, þvi Hann hefur j sundur slited oss, Hann mun og lækna oss, Hann hefur sleiged oss, Hann mun og græda oss.

8. * Hann skal giora oss Lifande epter Tvo Daga, Hann skal uppreisa oss a þann Þridia Dag, so vier munum lifa fyrer honum.
* 1 Cor: 15, 5.

9. Þa munum vier til Vara taka, og aastundunarsamer vera, ad vier þeckium DROTTinn. Þviad hann skal framm briotast, lijka sem fagur Morgun-Rode, og hann mun til vor koma sem eitt Regn, Jaa, sem eirn Kvølldskur sa Jordena vokvar.

III. 10. Þvi mun Eg so vel giora vid þig Ephraim? Þvi mun Eg giora so vel vid þig Juda? Þviad su Naad, sem Eg vil veita og audsyna ydur, skal vera sem eitt Daggar Skij um Morgunenn, og so sem Dogg su aarla Morguns sig utbreider.

11. Þar fyrer (b) hefla Eg þa fyrer Prophetana, og jhel slæ þa med Orde Mijns Munns, Ad þin Riettur skal koma til Liossens.
(b) (Hefla) Eg fordæme þeirra Guds-Þionustugiørd, so ad þeir kunne ad læra ad þiona Mier Riett.

12. Þviad * a Miskun hefe Eg Þocknan, enn ecke a Offre, og a Þeckingu Guds, enn ecke a Brenne-Foornum.
* Matth: 9, 13. c: 12, 7.

13. Enn þeir yfertroadu Saattmaalann, lijka sem Adam, þar uti forsmaadu þeir Mig.

14. Þvi Gilead er eirn Stadur, fullur med Afguda-Dijrdkan og Blood-Skulld.

15. Og Prestarner, med sijnum Selskap, eru lijka sem Vega Ræningiar, hvorier ad umsitia Folked, og myrda a Veigenum sem liggur til Sichem, Þvi þeir giora hvad þeir vilia.

16. Eg sie j Israels Hus, fyrer hvoriu mig gruar, þvi Ephraim drijger þar Hooraner, so saurgar Israel sig.

17. (c) Og Juda skal hafa enn eina Haustvinnu fyrer sig, nær Eg vil snua Fangelse Mijns Folks.

(c) (Og Juda) Jsrael skal vera halldenn j Fangelse, og mun vilia Afvega leida Juda j Afguda-Dijrdkan, enn Juda skal koma aptur.

## VII. Capitule.

Hoseas talar (I) um Margskonar og Storkostlegt Gudleyse Jsraels Barna; En (II) Spaaer ad Drottenn mune straffa þau.

I. Pa Eg vil lækna Jsrael, þa kiemur (a) First framm Ephraims Synd, og su Jllska Samarie, Hvorsu þær hafa framed Afguda-Dijrdkaner. Þviad þo þeir hafe ploagast med Þiofum sijn a mille, og hid ytra med Ræningium,

(a) (First) Þvi meir sem riett er kiennt, Þess Argare er Heimurenn.

2. Sannt þa vilia þeir þad ecke akta, ad Eg formerke alla þeirra (b) Vondsku, Enn Eg sie vel þeirra Athæfe, hvort þeir allstadar hafa.

(b) (Vondsku) Þad er Afguda-Dijrdkan.

3. Þeir Hughreysta Kongenn med sinne Jllsku, og Hofdingiana med sijnum Lygum.

4. Og þeir aller eru Hoorkarlar, sem einn Bakstur-Ofn, sem (c) Bakarenn heitann giører, þa hann hefur uthnodad, og lætur Deiged syrast og boolgna.

(c) (Bakarenn) Þad er, Þeirra Kongur, Þad er þeirrar Meiningar, Þeir baka so heitt j sinne Afguda-Dijrdkun, ad þeim med enga Plaagu verdur þar fra snued; Jaa, þeir giora Þijslar-Votta af þeim sem GUD straffar, so sem lide þeir þad fyrer Guds Saker.

5. J Dag er vors Kongs Hoatijd, þa taka Hofdingiarner til ad verda galder af Vijne, þa dregur hann Spottarana til sijn.

6. Þvi þeirra Hiarta er j glooanda Þanka, sem eirn Bakstur Ofn, þa þeir Offra, og Folked svijkia. Enn þeirra Bakare sefur alla Noatt, Enn ad Morgne brennur hann kloar Loge.

7. Þo eru þeir med so heitum Alvarlegleika, sem eirn Bakstur-Ofn, lijka vel, þo ad þeirra Doomarar uppeteft, og aller þeirra Kongar falle, þo er eingenn a medal þeirra sem kallar a Mig.

8. Ephraim samblandar sier a medal Folksins, Ephraim er sem ein Kaka, þeirre ed eingenn um (d) snyr.

(d) (Snyr) Hun sticknar alltijd uppa þa adra Sijduna.

9. Helldur eta Annarleger hennar Krapt, þo vill hann ecke þar ad giæta. Hann hefur og so feinged groa Hoar, lijka vel vill hann þad ecke akta.

10. Og Jsraels Drambseme skal nidurþrickiast fyrer þeirra Augum, Og þo snua þeir sier ecke til DROTTins þeirra Guds, og j öllum þessum Hlutum hyrda þeir ecke par um Hann.

11. Þvi Ephraim er lijka sem ein burt lockud Dufa, sem ecke neitt vill merkia, Stundum kalla þeir a Egypta-Land, stundum hlaupa þeir til Assur.

II. 12. Enn First þeir Hlaupa nu hingad og þangad, þa vil Eg Mijnu Nete varpa yfer þa, og sloa þeim hier nidur, lijka sem Fuglum under Hymnenum, Eg vil straffa þa, sem Menn (e) Predika j þeirra Samkundum.

(e) (Predika) Þad er, Þeir Hoota og j Bann setia þa riettu Propheta, so sem Villu-Menn fyrer GUde, þad sama skal þeim j Koll koma, og sialfer skullu þeir þad Straff bera, sem þeir predika uppa adra j þeirra Skolum, og etc.

13. Vei þeim! þad þeir viku fra Mier, þeir hliota eydelagder ad verda, þvi þeir eru fallner fra Mier. Eg villde vel hafa frelsad þa, hefde þeir ecke kiennt (f) Lygar j moote Mier.

(f) (Lygar) Þad er, Afguda-Dijrdkun.

14. Þeir kolludu eige helldur a Mig af Hiarta, helldur (g) ylbrudu þeir j sijnum Sængum, þeir (h) safnast samann sokum Vijns og Korns, og eru Mier Ohlyduger.

(g) (Ylbrudu) Med Munnenum, og giordu ecke Jdrun af Hiarta.

(h) (Safnast saman) Þad er, Þeir ganga j Koor Saker Matar og Drickiar.

15. Eg

15. Eg kiennde þeim, og stirkte þeirra Armlegge, enn þeir hugsa Vondt um Mig.

16. Þeir umvenda sier, enn ecke riettelega, helldur eru þeir sem falskur Boge, Þvi skulu þeirra Hofdingiar falla fyrer Sverde, og þeirra (i) Hootaner skulu verda til Spotts j Egypta-Lande.

(i) (Hootaner) J moote Prophetunum.

## VIII. Capitule.

Hoseas spaaer Jsrael Eydelegging, sokum Svijvirdelegs Frafalls fra Drottne sijnum Gude.

Hroopa þu hoatt! So sem eirn Herlludur, Og segdu, (a) Hann kiemur alla reidu yfer Hus DROTTens sem ein Orn! Þvi þeir yferfalla Minn Saattmaala, og eru fallner fra Mijnu Logmaale.

(a) (Hann) Fiand-Madurenn, Kongurenn af Assyria.

2. Þa munu þeir kalla til Mijn, Þu ert Minn Gud, vier þeckium Þig Jsrael.

3. Jsrael forleggur þad Gooda, Þar fyrer maa Ovinurenn ofsækia þa.

4. Þeir giora sier Konga, enn aan Mijn, Þeir setia Hofdingia, og Eg a þad ecke ad vita, Þeir giora sier Afgude, af sijnu Silfre og Gulle, so ad þeir verda snart upprætter.

5. Samaria! Hann burt kastar þijnum (b) Kaalfe, Mijn Reide er grimm yfer þeim, Þad maa ecke leinge so standa, þeir verda ad straffast.

(b) (Kaalfe) Þad er, Þitt Skurgod edur Afgud.

6. Þvi Kaalfurenn er komenn fra Jsrael, Og eirn Hagleiks-Madur giorde hann, Enn þad maa þo ecke vera neirn Gud, Þvi skal Kaalfur Samarie verda ad Dupte.

7. Þviad þeir saa Vinde, enn munu uppskiera Storm, Þeirra Saad skal ei uppkoma, og þeirra Groode skal eckert Miol giefa, og þo þad giefest, þa skulu Annarleger þad eta.

8. Jsrael verdur uppetenn, Heidingiarner leika hann ut, lijka sem annad audvirdelegt Kier.

9. Þar fyrer, ad þeir hlaupa upp til Assur, lijka sem Villu-Dyr j Villu. Ephraim skeinker sijnum Elskhugum, og giefur Heidingium Skatt.

10. Þeim somum Heidingium vil Eg nu samansafna yfer þa, þeir skulu snart verda þreytter af Kongsins Byrde og Hofdingiañа.

11. Þvi Ephraim giorde morg Olltoru ad syndgast med, so skulu og Olltarenn verda honum til Syndar.

12. Og þo Eg skrifade honum enn miog margt um Mijn Log, þa (c) oktudu þeir þad so sem Annarlegann Lærdoom.

(c) (Oktudu þeir) Þad er, kolludu þad Afguda-Dijrdkan.

13. Þad þeir nu miklu Offra, bera framm Kiot, og (d) eta þad, þa hefur þo DROTTenn ongva Þocknan a þvi, helldur vill hann minnast þeirra Misgiorninga, og heimvitia þeirra Synda, sem snua sier til Egypta-Lands.

(d) (Eta þad) So sem Menn plaga ad eta Offur. Sem eirn Heilagann Mat, Gude til Þionustu.

14. Jsrael gleymer sijnum Skapara, og smijdar Kyrkiur, og Juda bygger marga sterka Stade, Enn Eg vil senda Elld j hans Stade, sem eyda skal hans Husum.

## IX. Capitule.

Hoseas (I) Rædur Jsrael ad gledjast ecke af sinne Skurgoda-Dijrdkan; Og (II) klagar yfer þeirra Fals-Spaamonnum; En spaaer (III) ad þeirra Konur skule vera Obiriur.

I. Jsrael! Þu þarft ecke ad gledjast, ei helldur ad hroosa þier sem Þiodernar, Þvi þu fremur Hoor j moote þijnum Gude, hvar med þu leitar Hooru Launa, so ad allar Kornhlodur yrde fullar med Korn.

2. Þar fyrer þa skulu hvorke Korn-Hlodur, nie Vijn-Þressur fæda hana, og Vijned skal bregdast (a) henne.

(a) (Henne) Þad er, Hoorunne, edur Jsraels Folke.

3. Og þier skulud ecke vera j Herrans Lande, helldur skal Ephraim aptur j Egypta-

Land, og hlytur j Assyria ad eta þad sem er ohreint.

4. Þar sem þeir skulu ecke kunna ad offra DROTTne Dricktar=Offur af Vijne, eda nockud annad Honum til Þocknunar ad giøra. Þeirra Offur skal verda sem Braud (b) Sorgfullra, af hvoriu aller verda ohreiner, þeir sem þar af eta. Þvi þeir skulu eta sitt Braud hiaa sier sialfum, og þad skal ecke beraſt j Herrans Hus.

(b) (Sorgfullra) Deut. 26 Er fyrerbodeð ad giøra Angurſamt Offur.

5. Hvad vilied þier þa giøra aa Aar=Tijdum, og aa DROTTens Haatijdis Døgum?

6. Sioa þu! Þeir skulu j burt fyrer Eydeleggiaranum, Egypta=Land skal safna þeim, og Moph skal grafa þa. Netlur skulu þar vaxa, þar sem þeirra Elſkuleger Silfur Afguder nu standa, Og Þyrnar j þeirra Tialldbudum.

II. 7. Vitiunar=Tijmenn er komenn, Endurgiallds=Tijmenn er komenn, þad skal Israel vel formerkia. Prophetarner eru Þussar, og þeir Villu=Andar eru Sinnulauser, fyrer þinn stoora Misgiørning, og Søkum þeirrar stooru haturlegu Afguda=Dijrdkunar.

8. Vardhallds=Mennerner j Ephraim hielldu sig j fordum Tijd til mijns Guds, enn Spaa=Mennerner eru nu þeir sem Snorur leggia aa alla þeirra Vegu, med haturlegre Afguda=Dijrdkan j þeirra Guds Huse.

9. Þeir fordiarfa þad nidur j Grunn, so sem j Gibea (c) Tijd, þar fyrer skal hann minnaſt a þeirra Misgiørninga, og vitia þeirra Synda.

(c) (Gibea) Jud: 19, 25. Þa Ben=Jamins Syner forſvorudu þa Oliþu allra=ſtærſtu Vondsku, sem ecke vard læknanleg, og hlutu þar fyrer j Grunn ad fordiarfaſt.

III. 10. Eg (d) fann Israel j Eydemørku, so sem Vijnþrugu, Og Eg saa ydar Fedur so sem hinar Firſtu Fijkiur a Fijkiu=Trianu, Enn þar epter geingu þeir til Baal=Peor, og gaafu sijna Tru þeim ſkammarlega Afgud, og þeir urdu so Svijvirdeleger sem þeirra Filgiu=Menn.

(d) (Fann) Israel var Mier so kiær sem Vijnberia Klaſi, edur Fijkiur eru þeim sem finna þær midt Øræfis Eydemørkum.

11. Þar fyrer skal Ephraims Vegſemd burtfliuga sem eirn Fugl, so þeir skulu hvorke fæda nie bera, nie þungader verda.

12. Og þo þeir alla reidu uppale sijn Børn, þa vil Eg þo giøra þa Barnlauſa, so þeir skulu ecke Folk vera. Og Vei þeim nær Eg er j burt fra þeim vikenn!

13. Ephraim, sem Mier syneſt, er plontud og fogur sem Tyrus, Enn hlytur nu ad giefa sijn Børn ut fyrer Mann=Drapparann.

14. DROTTenn gief þeim! Enn hvad villtu giefa þeim? Gief þeim Avaxtarlauſt Lijf, og þurr (e) Brioſt.

(e) (Brioſt) So þeir ecke kunne ad uppfoſtra fleyre Børn j Landinu, helldur mun allt j burt flutt verda.

15. Øll þeirra Vondſka ſkier j Gilgal, þar hata Eg þa, og Eg vil hrinda þeim ut af Mijnu Huse, ſokum þeirra Vonds Athæfis, og øngvann Kiærleika vil Eg þeim framarmeir audſyna, þvi aller þeirra Hofdingiar eru fra fallner.

16. Ephraim er ſleigenn, þeirra Root er (f) ſkræld, so ad þeir gieta øngvann Avoxt meir bored, og þo þeir enn fædde, þa vil Eg lijka ſlaa j hel þeirra Elſkulegann Lijfs Avoxt.

(f) (Skræld) Þeirra Konga=Rijke er burt og þeir hliota ad ut tviſtraſt a medal Heidingia, so sem j Villu.

17. Minn GUD mun burt kaſta þeim, þviad þeir villdu ecke heyra Hann, og þeir skulu villaſt a medal Heidingianna.

# X. Capitule.

Hoseas talar um Margvijſlegar Synder Israels Barna, og þeirra vel maklegt Straff.

Israel er eitt eydelagt Vijn=Trie, hans (a) Avoxtur er og lijka so, þvi so mikenn Avoxt sem hann hafde, so margt Alltare hafde hann giort,

giort, Hvar Landed var allra best, þar settu þeir sijnar fegurstu Kyrkiur.

(a) (Avoxtur) Þad er, Staderner eru Avoxtur þvi lijks Vijn-Tries, enn þeir eru or-fijnder og tomer.

2. Þeirra Hiarta er j sundur deillt. Nu skulu þeir finna sijna Skulld, Þeirra Ollturu skulu j sundur briotast, og þeirra Kyrkiur skulu kollkastast.

3. Þa skulu þeir segia, Vier hofum aungvann Kong, þviad vier ottustum ecke DROTTinn, Hvorsu kann Kongurenn ad hiaalpa oss nu?

4. Þeir sooru forgiefins, og giordu eirn Saattmaala, og soddann Raad grænka a ollum Plogforum a Morkenne, so sem Gall.

5. Innbyggiarar j Samaria eru sturande vegna Kaalfsins j Beth Auen, þvi hans Folk sturer fyrer honum, yfer hvorium þo ad hans Camarim plogudu ad glediast, hans Vegsemdar vegna, Þvi hann er burtfluttur fra þeim.

6. Joa, Kaalfurenn er fluttur j Assyria, Kongenum til eirnrar Skeinkingar, j Jareb. So skal Ephraim skammast sijn, og Israel skal hafa Kinnroda fyrer sijna Uppteckt.

7. Þvi Kongurenn af Samaria er j burtu, lijka sem Froda a Vatne.

8. Hæderner til Auen eru afmaadar, med hvorium Israel syndgadest, Þar vaxa Þystlar og Þyrner a þeirra Olltorum, Og * þeir skulu segia, Þier Fioll hylied oss! og þier Haalsar falled yfer oss!

* Luc: 23,30. Opinnb: B: 6,16.

9. Israel! þu hefur syndgast sijdan Gibeons Tijd, vid þad hafa þeir og hallded sig, Enn soddann Strijd, sem skiede moote þeim vondum Monnum j Gibea, skal ecke koma yfer þa.

10. Helldur vil Eg straffa þa epter Minne Osk, ad þar skal koma samansafnad Folk yfer þa, þegar Eg vil straffa þa fyrer þeirra (b) Tvær Synder.

(b) (Tvær Synder) Þad er, Skurgoda-Dijrdkun beggia Kaalfanna.

11. Ephraim er eirn tilvanninn Kaalfur, so hann þreskier giarnann, Eg vil stijga yfer hans fagra Haals, Eg vil rijda a Ephraim, Juda skal Eria, og Jacob Jafna.

12. Þar fyrer (c) saaed ydar Riettlæte, og uppskiered Kiærleikann, og eried odruvijs, medann Tijmenn er, ad leita DROTTens, þar til Hann kiemur, og doggvar Riettlætenu yfer ydur.

(c) (Saaed) Þad er, Prediked riett, ellegar vil Eg einu Sinne plægia med ydur.

13. Þviad þier saaed Illu, og uppskiered vonda Giorninga, og eted Lygennar Avoxtu. Sokum þess þa, ad þu treyster a þijna Breytne, og a Fioldann þinna Strijds-Kappa,

14. Þa skal þar upp hefiast eitt Upphlaup a medal Þijns Folks, So ad aller Þijner faster Stader skulu hrapa. Lijka sem (d) Salman eydelagde Arbeels Hus, a þeim Strijds Tijma, þa Mædurnar vooru nidurslegnar med ollu til Dauds yfer Bornunum.

(d) (Salman) Þesse Historia stendur hvorge skrifud j Ritningunne, og þar er enn fleyra soddann skied, sem ecke er allt uppskrifad, so sem er þad eitt sem Judas talar um j sijnum Pistle, um Michael og Satan.

15. So skal þad og so ganga ydur j Bethel, Sokum ydrar stoorrar Illsku, so ad Israels Kongur skal under ganga snemma ad Morgne.

## XI. Capitule.

Hoseas talar um Guds Naad vid Israel (I) ad nockru leite framkomna i Fyrndenne; Og (II) ad nockru leite þaa er Hann munde auglysa a epterkomande Tijmum.

1. Þa Israel var ungur, hafde Eg hann kiærann, * og kallade hann Minn Son, af Egypta-Lande. * Matth: 2,15.

2. Enn þegar Menn kalla þa nu, þa snua þeir þar fra, og offra Baalim, og veifa Reykelsinu fyrer Bijlætum.

3. Eg took Ephraim um hans Arm, og (a) leidde hann, Enn þeir merktu þad ecke med hvoriu moote Eg hiaalpade þeim.

(a) (Leidde) So sem Modurenn leider Barned, og kienner þvi ad ganga, halldande um þess Handlegg.

4. Eg liet þa draga eitt mannlegt Ok, og ganga j Kiærleiks Bondum, og hiaalpade þeim ad bera Oked a siinum Haalsum, og Eg gaf þeim Foodur.

5. Ad hann skyllde ei snua sier aptur til Egypta-Lands, So er nu Assur ordenn þeirra Kongur, þvi þeir vilia ecke umsnua sier.

6. Þvi skal Sverded koma yfer þeirra Stade, og giora þeirra Grindur til einskis, og uppsvelgia þær, Sokum þeirra Aforms.

7. Mitt Folk er þreytt ad snua sier til Mijn, Og þo Mann predike fyrer þeim, þa upp rietter einginn sig.

II. 8. Hvad skal Eg giora af þier Ephraim? Skal Eg (b) vernda þig Jsrael? Skal Eg ecke med Riettu giora eina Adama af þier? Og utleika þig sem Zeboim? Enn Mitt Hiarta er ödruvijs sinnad, Mijn Miskunseme er so miog brennheit.

(b) (Vernda) Meiningenn er þesse, Eg veit ecke a hvorn Veg Eg skal hiaalpa þier, þar vill hvorke hiaalpa Straff nie Naad, Eg hlyt ad senda Christum, Hann mun faa þad giört.

9. Ad Eg vil ecke giora epter Minne Grimmdar Reide, nie snua Mier ad fordiarfa Ephraim alldeilis, Þvi Eg er GUD, enn ecke Madur, Og er Sa Heilage a medal þijn. Enn ei vil Eg j Stadenn koma.

10. Þa skulu Menn epterfilgia DROttne, og hann skal öskra sem eitt Leon, Og þegar Hann öskrar, þa skulu þeir hrædast sem eru j moote Vestrenu.

11. Og þeir j Egypta-Lande skulu og fælast sem eirn Fugl, og þeir j Assyria Lande sem Dufur, Og Eg vil setia þa j þeirra Hus, seger DROTTinn.

# XII. Capitule.

Hoseas rædur Jsraels Börnum, ad þau adhyllest DRottinn þeirra GUd epter Dæme þeirra Forfödurs Jacobs.

I Ephraim eru a alla vega (a) Lygar a moote Mier, og j Huse Jsraelis falst Guds Þionusta, Enn (b) Juda helldur fast enn vid GUD, og a þeirre Riettu Heilögu Guds Þionustu.

(a) (Lygar) Afguda-Dijrdkan.
(b) Ebr. Stiornar enn nu med GUde.

2. Enn Ephraim fæder sig af Vinde, og hleypur epter Austan-Vindenum, og giörer Daglega meire (c) Afguda-Dijrdkan, og Skada, Þeir giora eitt Samhellde vid (d) Assur, og færa Balsamum j Egypta-Land.

(c) (Afguda-Dijrdkan) Þad er, Lyge og Forbiorfun.
(d) (Assur) Þeir treysta uppa Mennena, enn ecke uppa Gud.

3. Þvi skal DROttinn giefa Juda Sök, og heimsækia Jacob, epter hans Athæfe, og bitala honum epter hans Forþienan.

4. Hann undertrad siinar Brædur j sinnar Moodur-Kvide, og gliimde vid GUd af ollu siinu Afle.

5. Hann tuskadest vid Eingelenn, og yfervann, Þvi hann grier og bad Hann, og hann fann Hann j (e) Bethel, og þar talade Hann vid oss.

(e) (Bethel) Þad Bethel sie betre til Guds Þionustu, enn Jerusalem, þad bevijsa þeir þar med, ad Jacob giörde þar Stoormerke.

6. Enn DROTTinn er Sa GUd Zebaoth, DROttinn er hans Nafn.

7. Þvi snu þier nu til þijns Guds, halltu Miskunsemd og Riettlæte, og treystu alltijd a þinn GUD!

8. Enn Kaup-Madurenn hefur (f) Falska Vickt j sinne Hende, og svijkur giarnann.

(f) (Falska) Þeir utbyda ecke riett Skriftena um Bethel.

9. Þviad Ephraim seger, Eg er rijkur, eg hefe noog, Eingenn Misgiörningur skal finnast med mier, j öllu mijnu Arfide, þad ad Synd sie.

10. Enn Eg DROttinn er þinn GUd, allt j fra Egypta-Lande, og Sa sem lætur þig enn nu byggia j Tialldbudum, so sem Menn plaga a Aar-Tijdum.

11. Og

11. Og Eg tala til Spaamannanna, Eg
er Sa sem gief so mikla Spaadoma, og (g)
audsyne Mig fyrer Prophetunum.

(g) (Audsyne) Ebraice. Assimilatus, Þad er, Eg var Sa Þar talade fyrer Spaamennena, og Spaamennerner voru Mitt Verkfære, edur Personur, j hvørium Eg var nalægur, og talade og verkade j þeim allt, so sem Christur sagde, Hvør ydur heyrer hann heyrer Mig,

12. J Gilead er Afguda=Dijrdkan, og j
Gilgal offra þeir Uxum forgiefens, og þeir
hafa so mørg Alltare sem Stein=Hrugur a
Mørkenne.

13. Jacob (h) vard ad flya til Syr=Lands,
og Jsrael moatte þiona, fyrer eirnrar Kvinnu
Skulld, fyrer eina Kvinnu moatte hann vak=
ta Fienad.

(h) (Vard) Ad Jacob þionade GUde j Bethel, hlaut ad skie j þann Tijd fyrer hans Persónu, sijdann leidde GUd Folked af Egypta=Lande fyrer Mosen, hønum atttu þeir epter ad filgia, enn ecke Jacobs Epterdæme.

14. Enn þar epter færde DROTTinn
Jsrael af Egypta=Lande, fyrer einn Spaa
mann, og liet bijvara hann, fyrer eirn Pro
pheta.

15. Enn nu stygger Ephraim hann med sij=
num (i) Afgudum, þvi skal þeirra Blood ko=
ma yfer þa. Og þeirra (k) Herra skal bitala
þeim þeirra Hadungar.

(i) (Afgudum) Ebr. Beiskleikann.
(k) (Herra) Kongurenn af Assyria.

## XIII. Capitule.

Hoseas (I) spaaer ad Jsrael mune eydeleggiast fyrer Saker sinnar Afguda=Dijrdkunar; Samt heiter hann þeim (II) Frelse fyrer Christum.

I. Þa Ephraim kienndе (a) hrædelega, þa
var hann upphafenn j Jsrael, Þar
epter syndgudust þeir fyrer Baal, og urdu
þar fyrer (b) deydder.

(a) (Hrædelega) Eitt gott Hiarta skielfur fyrer þeirre hrædelegre Afguda=Dijrdkan, sem Jeroboam stiftade, þo hafde hun Framgang, og vox, so sem øll Afguda=Dijrdkan stoorlega vex. Hvad þo er nærsta hrædelegt ad sia fyrer good Hiørtu.
(b) (Deydder) So sem Achab med øllum sijnum.

2. Enn þeir giora nu miklu meire Synder,
og af þeirra Silfur=Mindum, so sem þeir
kunna sialfer upp ad þeinkia, sem eru Skur=
god, og eru þo ecke Annad enn Smidsins
Giørningar, Þo predika þeir ut af þeim so=
mu. Hvor sem Kalfenn vill kyssa, hann
skal Manne offra.

3. Þeir somu skulu hafa Morgun=
Skijenn, og þa (c) Døgg sem fellur snemma.
Jaa, lijka sem Agner sem burt feykiast fra
Kornhlødu, og sem Reykur ur Skorsteine.

(c) (Døgg) Þeir fyrerhietu miklum Hlutum, rangre Guds Þionustu, Jaa, aptur a bak, seger Hoseas.

4. Enn Eg er DROttinn þinn GUd af
Egypta=Lande, og þu atter ongvann An=
nann GUd ad þeckia utan Mig, og ongvann
Hiaalpara utan Mig alleina.

5. Eg took þig ad Mier j Eydemørkenne, j
þvi þurra Lande.

6. Enn af þvi þeir voru Foodrader, so ad
þeir eru ordner sadder, og hafa noog, þa upp=
hefur þeirra Hiarta sig, þvi gleyma þeir Mier.

7. Þar fyrer vil Eg nu vera a moote þeim
sem eitt Leon, og so sem eirn Pardus vil Eg
um sitia þa a Veigenum.

8. Eg vil mæta þeim sem eitt Biarn=Dyr,
sem Ungarner eru fra tekner, Eg vil sundur
rijfa þeirra Hardudigt Hiarta, og Eg vil upp
eta þa þar sem eitt Leon, Og Villu=Dyrenn
skulu j sundur rijfa þa.

9. Jsrael! Þu kiemur þier j (d) Olucku,
Þvi þijn Hiaalp er alleinasta hia Mier.

(d) (Olucku) Þar þu leitar Hiaalpar hia Mønnum, enn ecke hia Gude.

10. Hvar er þinn Kongur? Hvar er hann
þier hiaalpa kann j øllum þijnum Stødum?
Og þijner Doomendur, um hvoria þu sag=
der, Gief mier Konga og Høfdingia?

11. Nu vel! Eg gaf þier eirn (e) Kong j
Minne Reide, Og Eg vil j burt taka hann fra
þier med Grimmd.

(e) (Kong) Hann gaf Saul j Reide sinne. 1 Sam:8. Meiningenn er þesse, Eins og Eg gaf þier hann Firsta Kong j Reide, so vil Eg og burt taka hann Sijdarsta fra þier, j Reide, so þu skallt ecke hafa fleyre.

12. Ephraims Ranglæte er til samans
bunded, og hans Synder eru geymdar.
13. Þvi þeir skulu foa Hriggd, lijka sem
su ed fæder, Þvi þad eru Oforsioaleg Børn,
Su Tijd skal koma, ad þeir skulu ecke þola vid
ad vera, fyrer Hørmung Barnanna.
II. 14. Enn Eg vil leysa þa af (f) Helvijte,
og frelsa þa fra Daudanum. * Daude!
Eg vil vera þijn Olisian, Helvijte! Eg vil
vera þijn Drepsott. Þo er Huggunenn hu-
lenn fyrer Mijnum Augum. *1Cor: 15, 55.
Ebr: 2, 14.

(f) (Helvijte) Þad tijmanlega Kongs Rijked skal under ganga, enn þad Andlega skal koma, Enn þar vid munu fæer Gydingar hugaa sig, Þviad þeir munu ecke medtaka Þad, og munu eydelagder verda af Þeim Romversku, lijka sem af einum strijdum Storme.

15. Þvi hann skal vera Avoxt a medal
Brædranna. Þar skal koma eirn Austann-
Vindur, DROttinn skal upp stijga af Ey-
demørkenne, og uppþurka þeirra Brunna,
og uppþurka þeirra Uppsprettur, og hann
mun ræna Fiemunum allra kostulegra Kiera.
16. Samaria skal eydeleggiast, Þvi þeir
eru sijnum GUde ohlyduger, Þeir skulu falla
fyrer Sverde, og þeirra Ung-Born skulu j
sundur meriast, og þeirra þungadar Kvinnur
skulu j sundur slitnar verda.

## XIV. Capitule.

Hoseas rædur Jsrael ad snua sier til DROTTens Guds sijns.

Snu Þier þu Jsrael! til DROTTins
Guds þijns, þvi þu ert fallenn, søkum
þinna Misgiørda.
2. Taked þesse Ord med ydur, og snued til
DROttens, og seged til Hans, Fyrergief
oss allar Synder, Og giør Þu oss gott, So
*vilium vier Offra Uxum vorra Vara!
*Ebr: 13, 5. 1 Petr: 2. 5.
3. Assur skal ecke hioalpa oss, og vier vi-
lium ecke meir rijda oa Hestum, og ecke optar
segia til Giørninga vorra Handa, Þier erud
vor GUd, Helldur loat þa Fodurlausu finna
Noad hioa Þier!
4. So vil Eg lækna þeirra Yfertrodslu ap-
tur, Eg vil giarnann elska þa, Þa skal Mijn
Reide snua sier froa þeim.
5. Eg vil vera Jsrael sem Dogg, og hann
skal blomgast sem ein Roos, og hans Rætur
skulu utbriotast sem Libanon.
6. Og hans Vidar-Greiner skulu utbreidast,
ad hann skal verda so fagur sem Oliu-Trie, og
hann skal giefa so sætann Jlm sem (a) Libanon.

(a) (Libanon) Sem Rætur Triaana Libanon.

7. Og þeir skulu ad nyu sitia under hans
Skugga, þeir skulu fædast af Korne, og
blomgast sem Vijn-Trie, Hans Minning
skal vera lijka sem Vijned a Libanon.
8. Ephraim! Hvad skulu Mier framm-
veigis Afguder? Eg vil heyra hans Bæn, og
leida hann, Eg vil vera sem eitt grænkande
Grene-Trie, og a Mier skulu Menn finna
þijna Avoxtu,
9. Hvor er Vijs sem under stendur þetta?
Og Klokur sem þviliijkt merker? Þvi Veiger
DROTTENS eru rietter, Og þeir
Riettlootu ganga a þeim, Enn Yfertrodslu-
Mennerner falla a
þeim.

Ending Prophetans Hoseas.

# Formaalenn yfer Prophetann Joel.

Joel undervijsar ecke a hvørium Tijma hann hefur lifad og predikad. Enn þeir hiner Gømlu segia, ad hann vered hafe samtijdes þeim Hoseas og Amos, þad laatum vier so vera, og vitum eckert sannara þar af ad segia.

Hann hefur vered Hægur og Spaklaatur Madur, Straffar eige med stoorum Ordum, so sem hi- ner adrer Spaamennerner, helldur Bidur, Aminner, og ber sier, Vill giarnann med hægum Ordum og A- minin-

miningum snua Folkenu fra Illu, og vara þad vid Skadanum og þeirra eigennlegre Ogiæfu, Enn þad hefur hønum eins geinged, so sem hinum ødrum Spaamønnunum, So þeir hafa ecke truad hans Ordum, helldur hallded hann fyrer Heimskann Mann.

Þo hefur hann mikenn Forprijs j þvi Nya Testamentenu, Þviad S. Petrus vitnar til hans Act: j ødrum Cap: 15, Og Joel gaf þa Firstu Predikun sem høfd var j Christelegre Kyrkiu, sem var a Hvijta-Sunnudag til Jerusalem, þa Heilagur Ande var Postulunum giefenn. Og S. Paall framm setur, miøg forkostulega, þa Maals-Grein, Hvør hann aakallar Nafn DROTTins Sa skal verda hoolpenn, Hvør Grein ad stendur Joelis j 2 Cap: 32.

J Firsta Cap: seger hann fyrer þad Straff sem koma skal yfer Folked Jsrael, þad þeir skylldu af þeim Assyriis Foreydder og burt flutter, og Hertekner verda, og nefner þa Assyrios Kaal-Orma, Eingespretttur, Trie-Orma, og Korn-Orma. Þviad þeir af Assyria uppaatu smaam saman Jsraels Rijke, þangad til þeir høfdu þad ølldungis fordiarfad. Enn þo hlaut um siider Kong Senacherib fyrer Jerusalem vid Velle lagdur ad verda, hvad Joel aa-hrærer hier j ødrum Cap: þar hann seger, Og Þann fra Nordrenu vil Eg langt burtreka fra ydur.

Þar næst fyrerspaaer hann j Nidurlage Annars Cap: og so þadan j fra, allt ut til Enda, ut af Rijkenu Christi, og þeim Heilaga Anda, og af þeirre Eylijfu Jerusalem.

Enn þar hann talar um Dalenn Josaphat, Hvørnenn þad DROTTinn vilie þangad kalla allar Heidnar Þioder til Doomsins, hvad þeir hiner gømlu Lære-Fedur hafa understaded um þann Seinasta Doom, hvørki Meining eg lasta ecke, Enn þo helld eg, ad Meining Joelis sie þesse, Lijka so sem hann kallar Christlega Kyrkiu þa Eylijfu Jerusalem, so kallar hann einnenn þa sømu Josaphats Dal, Þar fyrer, ad allur Heimurenn kallast til Christlegrar Kyrkiu, fyrer Guds Ord, og verdur j þvi hinu sama dæmdur, og fyrer Guds Ords Predikun straffadur, ad aller sieu fyrer Gude Synduger, so sem Christus seger, Ande Sannleiksins skal straffa Heimenn vegna Syndarennar, Þviad Josaphats Dalur Norrærest Doms Dalur, lijka eins sem Hoseas j 2 Cap: 15. kallar Christelega Kyrkiu Achors Dal.

# Prophetenn Joel.

## I. Capitule.

Joel talar (I) um þa Stoorkostilegu Eymd Juda Folks; Og (II) seger þvi ad giøra Sannarlegt Aptur hvarf.

1. ÞEtta er þad Ord DROTTins, sem skiedde til Joels, Pethuels Sonar.

2. Heyred þetta þier hiner Ellstu! og merked vel aller Landsins Jnnbyggiarar! Hvørt sodan hefur skied nockurn Tijma a ydar Tijd, eda ydar Forelldra Tijd?

3. Seged ydar Bornum þar af, og laated ydar Born segia þad sijnum Bornum, og þau Bornenn þeirra ødrum Epterkomendum þad.

4. Sem er þetta, Þad sem Kaal-Ormurenn leifer, þad upp eta Eingespretturnar, Enn þad sem Eingespretturnar epter skilia, þad eta Gras-Ormarner, og þad sem Gras-Ormarner leifa, þad eta Korn-Ormarner.

5. Vaked upp þier Druckner, og graated og kveined aller Vijn-Svelgiarar, vegna þess nya Vijns, Þvi þad er j burt teked fra ydrum Munne.

6. Þviad upp j Mitt Land ferdast eitt megtugt Folk, og Oteljanlegt, Þad Folk sem hefur Tennur sem Leon, og Jaxla sem Leons-jnnur.

7. Þad sama eydeleggur Mijna Vijngarda, og skier Børkenn af Mijnum Fijkiu-Triaam, og skiefur þad, og burt kastar þvi, so þess Kvister standa hviter a þvi.

8. Æptu sem ein Jungfru, su ed Seck tekur a sig, søkum sijns Brudguma.

9 Þvi Mat-Offur og Drickiar-Offur er j burt fra DROTTins Huse, Og Prestarner Herrans Þienarar syrgia.

10. Merkurnar eru j Eyde, og Akrarner standa aumlega, Korned er fordiarfad, Vijned stendur saargrætelega, enn Vidsmiored aumkunarlega.

11. Akur-Verks Mennerner eru hormulleger

ger a ad lijta, og Vijngardsmennerner yla vegna Hveitis og Byggs, ad af Haust-Sofnudenum a Morkenne verdur eckert.

12. So stendur nu Vijn-Tried og so aumlega, og Fijkiu-Tried sorglega, so og Granata-Tried, Palmvidar-Tried, Epla-Tried, og Øll-Trie a Vollunum eru visnud, Þvi Mannanna Glede er ordenn ad Sorg.

II. 13. Umgyrded ydur, og syrged þier Prestarner, Æped þier Alltaresins Þienarar, Ganged þier Mijns Guds Þienarar jnn, og færed ydur j Secke! Þvi bæde Mat-Offur og Drickiar-Offred er j burt af ydar Guds Huse.

14. Helged eina Føstu, og kalled samann Almugann, Safned samann Olldungunum, og øllum Landsins Innbyggiurum, j DRottins ydar's GUds Huse, og kalled til DRottins.

15. O Vei þeim Deige! Þviad Sa Dagur DROTTins er j Nand, og kiemur sem ein Fordiorfun fra þeim Almættuga.

16. Þa skal Maturenn burt takast fyrer vorum Augum, og so Gledenn og Skiemtunenn af vors Guds Huse.

17. Sæded er rotnad under Jordunne, Korn-Husenn standa j Eyde, og Korn-Hlodurnar eru hrapadar, Þviad Korned er fordiarfad.

18. O hvørsu Peningurenn stynur, og Uxarner eru aumleger æsyndar, Þvi þeir hafa eckert Foodur. Og Sauderner vanmegnast!

19. DROTTENN! Þig ækalla eg, Þvi Elldurenn hefur upp brennt Hag-Lended a Eydemørkenne, og Løgenn hefur upptendrad øll Trie a Akrenum.

20. Villu-Dyrenn hroopa og til Þijn, Þviad Vatns-Lækerner eru upp þornader, og Elldurenn hefur upp brennt Gras-Hagann j Eydemorkenne.

## II. Capitule.

Joel (I) spaaer Juda Folke miklum Hernade; En rædur þvi (II) ad snua sier til DRottens, hver ed mune veita þvi Nya Blessan; (III) Lijkamlega; Og (IV) Andlega.

I. Blaased med Basunum j Zion, Hroo-ped a Mijnu Heilogu Fialle. Skialfed aller Innbyggiarar Landsins, Þvi Dagur DROTTins kiemur, og er j Nand!

2. Eirn mirkur Dagur, eirn dymmur Dagur, eirn Þickmikell Dagur, eirn Þoku-Dagur, Lijka sem eirn Morgun-Rode utbreider sig yfer Fiollenn, sem er eitt stoort og megtugt Folk, hvørs Lijke fyrr hefur alldrei vered, og eige hier epter vera skal, til Eylijfrar Tijdar, Æ og Ætijd.

3. Þar geingur undann Honum eirn eydande Elldur, og epter honum brennande Loge, Landed er fyrer honum sem eirn lystugur Alldin-Gardur. Enn a Bak honum sem eirn Obyggd Eydemørk, og eingenn skal sleppa hiaa honum.

4. Þeir eru hvilijkast ad siaa sem Hestar, og renna sem Riddarar.

5. Þeir stockva upp a Fiollunum, lijka sem þa Vagnar hurra, og sem Loge snarkar j Halme, so sem eitt Megtugt Folk, þad til Bardaga er bued.

6. Folked mun kvijda fyrer Honum, øll Andlit eru so bleik sem Leir-Pottar.

7. Þeir skulu hlaupa sem Risar, og stockva a Murenn sem Strijds-Menn, Sierhvor eirn skal beint framm hlaupa sinn Veg, og ecke (a) af sier sitia.

(a) Ebr. Og ecke snua fra sijnum Stigum.

8. Eingenn mun annann villa, helldur skal hvør framm fara j sinne Fylkingu. Þeir skulu briotast framm j giegnum Vopnenn, og ecke saarer verda.

9. Þeir skulu rijda um kring j Stødunum, hlaupa a Murenn, og innstijga j Husenn, og smiuga j giegnum Vindaugunn sem Þiofur.

10. Landed skielfur fyrer Honum, og Himenenn bifast, Solenn og Tungled verdur mirkt, og Stiornurnar jnne hallda sijnu Skine.

11. Þviad DROTTinn skal loata sijnar Reidar-þrumur framm ganga fyrer sijnum Her, þvi Hans Her er miøg stoor og Megtugur, hvør ed frammkvæma skal hans Bifalning, þviad Herrans Dagur er Stor og miøg Ognarlegur, Hvør mun kunna ad lijda hann?

II. 12. So seger nu DROTTinn, Snued ydur til Mijn af øllu Hiarta, med Føstum, med Groate, med Kveine.

13. Rijfed ydar Hiortu, enn ecke ydar Klæde, og snued ydur til DROTTins ydars Guds, þvi hann er Noadugur, Miskunsamur, Þolenmoodur, og storrar Giædsku, og snarlega jdrar hann Straffsins.

14. (b) Hvør veit, þad kann ad jdra hann aptur, og loata eina Blessan blijfa epter sig, til ad offra Mat-Offur, og Dryckiar-Offur fyrer DROTTne ydar Gude.

(b) (Hvør veit) Þesse Ord framuleidast af sumum, so sem kienndu þau oss ad tvijla um Syndanna Fyrergiefning. Nu er þad liost, ad þad er Guds Oumbreytanlegur Vilie ad Menn skule trua Syndanna Fyrergiefning, so sem þar um verdur opt annarstadar fleyra talad, þar fyrer skulu Menn ecke utleggia þesse Ord j Joel og Jona, þvert a mote ødrum klaarum og berum Ordum, Ecke er helldur Meiningenn þessara Orda (Hvør veit) Efaseme nein, helldur er þetta Maaltæke þeirrar Meiningar, sem þad forbioode Efaseme, so sem hann hefde sagt, Hvar fyrer villtu orvænta? Hvar fyrer villtu vita og æalyckta ad Gud mune ecke vera Noadugur? Bijd þu ad eins, og fall ecke fra Gude, so er þetta Ordtæke ecke Efunar Ord, helldur Ord þeirrar Manneskiu sem Efasemdenne aptrar, og oskar og vonar. Hier uppa eru og fleyre adrar goodar Utleggingar, ad uppgiøf a Syndunum sie og hliote ad vera viss, enn uppgiøf a þvi lijkamlega Straffenu skulum vier setia j Guds Hønd.

15. Bloased med Basunum hier j Zion, helged eina Føstu, Kalled Almugann til samans!

16. Samansafned Folkenu, Helged Almugann, safned Ølldungunum til samans, komed ungum Børnum og Briost-Mylkingum til samans, Brudgumenn gange af sijnu Herberge, og Bruduren af sijnu Brudar-Huse.

17. Loated Prestana, DROTTins Þienara, groata a millum Lopt-Hussens og Alltaresins, og segia, DROTTinn! þyrmdu Þijnu Folke, og loat þijna Arfleifd ecke verda til Smoanar, so ad Heidingiar drottne yfer þeim, Hvar fyrer villtu loata segia a medal Þiodanna? Hvar er nu þeirra GUD?

III. 18. So mun þa DROTTinn vandlæta um sitt Land, og hlijfa sijnu Folke.

19. Og DROTTinn mun svara, og segia til sijns Folks, Sioaed! Eg vil yferfliotanlega senda ydur Korn, Vijn og Vidsmiør, so þier skulud hafa noog þar af. Og Eg vil loata ydur ei leingur verda til Smoanar medal Heidingianna.

20. Og Eg vil burt reka þa af Nordrenu langt j burt fra ydur, og kasta þeim j eitt þurrt og eyde Land, sem er, hans Andlit ut til Hafsins j Austur, og hans Enda til hins ytsta Hafs. Hann skal funa, og jlla lyckta, þvi hann hefur giørt stoora Hlute.

21. Ottast þu ecke Elskulega Land, helldur vert gladvært, og med goodu Giede, Þvi DROTTinn kann ad giora mikla Hlute.

22. Ottest ecke þier Dyrenn a Mørkenne, Þvi Bygdernar j Eydemørkenne skulu grænkast, og Eykurnar skulu færa sinn Avoxt, og Fijkiu-Trien og Vijn-Trien skulu vel Avaxtast.

23. Og þier Zions Børn, gledied ydur og fagned j DROTTne ydrum GUde, hvør ydur giefur Kienne-Fedur til Riettlætis, og ydur sender ofann Morgun-Regn, og Kvølld-Skura, so sem (c) fyrr meir.

(c) (Fyrr meir) Ebr. In Primo, Hvad Þeir Rabbinar skilia um þann Firsta Maanud., Þesse er Meiningenn, Jaa, allt til þess ad Christus kiemur skal þar vera hiaa ydur Predikun og At-Vinna, Hvortveggia Vallded, þad er Kiennendur til Riettlætesins, og Landsins Avøxtur, so sem þad hefur adur fyr skied.

24. So ad Hlødurnar fyllest med Korn, og Vijn-Pressurnar skule hafa yferfliotanlega Vijn og Oleum.

25. Og Eg vil ydur þau aarenn endurgiallda,

da, hvor ed Eingespretturnar, Trie-Ormarner, og adrer vonder Ormar, og Koal-Ormarner (sem var Minn stoore Her, hvorn Eg sende a medal ydar) hafa upp eted.

26. So þier skulud hafa noog ad eta, og gøfgva DROttins ydars GUds Nafn, Sa ed Doadsamlega Hlute hefur giort ydar og medal, og Mitt Folk skal ei leingur til Skammar verda.

27. Og þier skulud reyna, ad Eg er midt a medal Israels, og ad Eg er DROTTinn ydar GUD, enn Eingenn Annar, og Mitt Folk skal ecke leingur ad Skømm verda.

IV 28. Og epter þad *vil Eg uthella Mijnum Anda yfer allt (d) Holld, og ydar Syner og Dætur skulu spaa, ydar Ølldungar skulu Drauma hafa, og ydar Ung-Born skulu Sioner sioa. G: B: P: 2, 17.

(d) (Holld) Þa skal Sa Levitiske Prestskapur verda ute, þegar allra handa Stietter skulu koma til Prestlegs Embættis.

29. Og a þeirre sømu Tijd, vil Eg utausa Mijnum Anda, bæde yfer Þræla og Ambaatter.

30. Og Eg vil giefa furdanleg Teikn a Himne og Jordu, sem er, Blood, Elld, og Reykiar-Svælu.

31. Solenn skal snuast j Mirkur, og Tungled j Blood, aadur enn kiemur Sa Mikle og Ognarlege Dagur DROTTins.

32. Og þad skal skie, Ad * hvor sem aakallar Nafn DROTTins, hann skal hoolpenn verda. Þviad uppa Zions Fialle, og j Jerusalem, skal ein Frelsun vera, so sem DROttinn hefur fyrerheited, og so hiaa þeim ødrum sem epter eru ordner, hvoria DROTTinn mun kalla. *Rom: 10, 13.

## III. Capitule.

Joel talar (I) um Guds Hefndar Straff a Ovinum Gydinga Folks; So og (II) um Guds Frid j Juda.

I. Þvi sioa þu! A þeim Døgum og þeirre sømu Tijd, þa Eg mun snua Juda og Jerusalems Herleidingu,

2. Þa vil Eg safna til samans øllum Heidingium, og Eg vil færa þa ofann j Dalenn Josaphat. Og þar vil Eg ganga j Riett vid þa vegna Mijns Folks, og vegna Israels Minnar (a) Arfleifdar, ad þeir hafa dreift þeim a medal Heidingia, og skipt sier Mijnu Lande.

(a) (Arfleifdar) Athuga hier, ad allt Straff og Guds Doomur yfer þeim enu illu, skiedur vegna þeirra enu Goodu, eirnenn Sa seinaste Doomur.

3. Og kastad Hlute um Mitt Folk, og gaafu þa enu ungu Sveina fyrer Mat, ogselldu Pijkurnar fyrer (b) Vijn, og druncku þad ut.

(b) (Fyrer Vijn) Þad er, Þeir urdu hoadsuglega og miskunnarlega sellder.

4 Og þier af Zur og Zidon, og øll Takmørk Philistei Lands, Hvad hafed þier ad giora med Mig? Wilied þier og stæra ydur a moote Mier? Nu vel! Stæred þier ydur a moote Mier, þa vil Eg og snarlega bitala ydur þad j Stadenn yfer ydart Høfud.

5. Þier sem hafed teked Mitt Silfur og Gull, og Mijnar kostulegar Hoafur, og fært þad j ydar Kyrkiur.

6. Og þar til hafed þier sellt Juda og Jerusalems Born, þeim j Grick-Lande, so ad þier mættud koma þeim langt fra þeirra Landamerkium.

7. Sioaed! Eg vil uppvekia þa af þeim Stad sem þier selldud þa, Og Eg vil bitala ydur yfer ydart Hofud þad sama.

8. Og Eg vil selia ydar Syne og Dætur aptur j Stadenn, fyrer Juda Born, þau skulu þeir selia þeim j Rijke Arabia, þvi Folke sem byr j fiarlægu Lande, þvi DROTTinn hefur þetta talad.

9. Giored þad Heyrum kunnugt, a medal Heidingianna, Helged eitt Strijd, uppvekied þa sterku, Laated allt Strijds-Folked koma hingad og ferdast hier upp.

II. 10. Giored Sverd af ydar Ploog-Jarnum, og Spiot af ydar Sigdum, Sa hinn Veike segie, Eg er sterkur.

11. Safned ydur samann, og komed hingad

gad aller Heidingiar allt um kring, og heim-
test samann, þar skal DROTTinn vid
Velle leggia þijnar Kiempur!
12. Heidingiar skulu bua sig, og koma upp
j Dalenn Josaphat, þvi þar vil Eg sitia og
dæma alla Heidingia allt um kring.
13. * Sláed med Sigdunum, þvi Korn-
Skierann er fullvaxenn, Komed hier nidur,
þvi Vijn-Pressann er full, og ut af Vijn-
Pressunne flytur, þvi þeirra Illska er stoor.

* Opinub: B: 14, 15.

14. Folked skal Flockum saman vera, hier
og hvar, j Dooms-Dalnum, þvi DROt-
tins Dagur er nálægur j Doomsens Dal.
15. * Solenn og Tungled munu formir-
kvast, og Stiornurnar skulu sijnu Skine inne
hallda.

* Matth: 24, 29. Marc: 13, 24. 25. Luc: 21, 25. Opinb: B: 6, 12.

16. Og DROTTinn skal øskra af Zion,
og láta sijna Rodd heyrast af Jerusalem, so
Himenenn og Jordenn mun bifast. Enn
DROTTinn skal vera Athvarf sijns Folks,
og Israels Bornum eirn fastur Stadur.
17. Og þier skulud merkia þad, ad Eg
DROTTinn ydar Gud j Zion, by a mijnu
Heilogu Fialle, þa skal Jerusalem vera Hei-
log, og eingenn Framande skal reisa þadann
j fra j giegnum hana.
18. A þeim Tijma skulu Fiollenn driupa
af sætu Vijne, og Hædernar fliota med Miolk,
og aller Lækir j Juda, skulu renna fuller af
Vatne, og þar skal eirn Brunnur ut ganga
af Huse DROTTins, hvor ed vokva skal
Sittim Straum.
19. Enn Egyptaland skal j Eyde vera, og
Edom ein o-byggd Eydemørk, sokum þess
Yfergangs sem þeir giordu Juda Bornum,
ad þeir uthelltu saklausu Blode j þeirra
Lande.
20. Enn Juda skal vera byggd æfenlega,
og Jerusalem um Alldur og ad Eylijfu.
21. Og Eg vil ecke láta (c) ohefnt vera
ydars Bloods. Og DROttenn mun bua j
Zion.

(c) Ebr. Eg vil hreinsa þeirra Blod, hvort Eg hefe ecke hreinsad.

Ending Prophetans Joelis.

# Formále yfer Prophetann Amos.

Amos seger sinn Tijma, Þad hann hafe lifad og Predikad undereins og þeir Hoseas og Esaias, Og hann Predikar j giegn þeim sømu Syndum, og Skurgoda Dijrdkan, edur þeim Fals-Heilogum, lijka sem Hoseas hann giører, og seger þeim fyrer þa Assyriansku Herleiding.

Enn hann er miog høstugur, og áviijtar Israels Lyd hardlega j allre Bookenne, allt til Nidurlags a hinum sijdarsta Cap: Þar spáer hann um Christum og hans Rijke, og endar so sijna Book þar med. So ad mier virdest eingenn Spámannanna hafa so fáa Fyrerheit, og so miog straffa og Ogna, so sem hann, So hann má vel heita Amos, þad er, Þunge, edur Sa sem er Þungur, og ei vel lijdande. Sierdeilis med þvi, ad hann var eirn Hyrder, og ecke utaf Prophetanna Orde, so sem hann sialfur seger j 7 Cap. 27. Þar med af Juda Kinslood, af Thekoa, og foor so j Israels Konga-Rijke, og Predikade þar, so sem framande Madur. Þar fyrer segia Menn ad Amazia Prestur (hvørn hann straffar j þeim 7 Cap:) hafe hann med einum Staf j Hel sleiged.

J Firsta Cap: synest hann þungur ad skilia, þar hann talar um Þriar og Fiorar Synder, og marger hafa margvijslega Gloseran þar yfer lagt, og langt ad leitad. Enn eg helld, ad Textenn giefe til á-vijsunar klárlega, ad þær sømu Þriar og Fiorar Synder sie ecke utan eins slags Synd, þvi hann nefner allstadar ecke utan eins háttar Synd, So sem j mote Damascum nefner hann alleina þa Synd, ad þeir hrefdu þreskt Gilead med Járn Vøgnum, og etc.

Enn slijka Synd kallar hann Þriar og Fiorar Synder, Af þvi, ad þeir hvorke medgeingu slijka Synd, nie idrudust hennar, Helldur hroosudu sier

þar af, so sem hefdu þeir vel giort. Eins lijka sem aller Fals-Helger plaga ad giøra. Þviad ein Synd kann alldrei ad vera verre nie stærre, enn þa, nær hun vill vera halldenn gott og Heilagt Verk, og giorer Dioffulenn ad Gude, og Gud ad Diofle. Lijka sem Prijr og Fiórer eru Sio, hvad ad er Ending Tolunnar j Reikningunne, hvar ed Menn vid hætta, og taka ad telia uppa nytt, bæde Daga og Vikur, etc.

Tvisvar verdur til hans vitnad j þvi Nya Testamentenu, first Act: 7. Cap: þar S: Stephan vottar af þeim 5. Cap: j giegn Gydingum, og bijvisar þar med, ad þeir hafe alldrei hallded Guds Løgmaal, fra þvi firsta j Egyptalande.

J annann Tijma, þa S: Jacob, Act: 15. Cap: a þeim firsta Postulanna Samfunde, vitnar ut af þeim sijdarsta Cap: til ad bevijsa Christelegt Frelse, þad Heldingiarner j hinu Nya Testamentenu, være ei lydskyllduger til ad hallda Moses Løgmaal med þvi ad Judar hielldu þad hvorke nie gætu halldeð, So sem S. Petur seger, Act: 15. Cap: Og þetta eru þær Tvær Siærlegustu Greiner j Amos, og eru Tvær miøg godar Greiner.

# Prophetenn Amos.

## I. Capitule.

Amos bodar Guds Straff (I) yfer þa Syrlendsku (II) Philistea; (III) Þa i Tyro; (IV) Edomita; (V) Ammonita og (VI) Moabita.

I. Þetta er þad sem Amos, hvør ed var a medal Hirdaranna j Thekoa, hefur sied yfer Israel, j Tijd Usia Juda Kongs, og Jeroboams, Joas Sonar, Israels Kongs, Tveimur Aarum fyrer Jardskiaalftann.

2. Og hann sagde, DROTTinn mun øskra af Zion, og laata heyra sina Raust af Jerusalem, so ad Haglende Hirdaranna skal aumlega standa, og Carmel skal ad ofanverdu uppvisna.

3. So seger DROTTinn, Fyrer sokum Þriggia og Fiøgra Synda Damasci, vil Eg ei vægia henne, þviad þeir hafa þreskt Gilead med Jaarn-Staungum.

4. Enn Eg vil senda Elld j Hasaels Hus, og hann skal upp eyda BenHadads Høllu.

5. Og Eg vil sundur briota Steingurnar j Damasco, og upprickia Innbyggiurum ur Dalnum Aven, asamt þeim sem a Rijkes Sprota hélldur, af (a) Lyste-Husenu; So ad Folked af Syria skal burt føraſt j Kir, seger DROTTenn.

(a) Ebr. Betheden.

II. 6. So seger DROTTinn, Sokum Þriggia og Fiøgra Synda Gasa, vil Eg ecke hlijfa henne, Af þvi ad þeir hafa ad nyu Fangarann til Fanga teked, og ut reked j Land Edoms.

7. Helldur vil Eg senda eirn Elld j Murana til Gasa, hvør ed eyda skal hennar Høllum.

8. Og Eg vil upp kippa Innbyggiurunum af Asdod, med þeim sem helldur a Rijkis-Sprotanum j Ascalon, og Eg vil snua Minne Hende mote Akron, so þad skal drepaſt sem enn er epter orded, af þeim Philisteis, seger DROTTinn DROTTinn.

III. 9. So seger DROTTinn, Sokum Þriggia og Fiøgra Synda Borgarennar Zor, þa vil Eg henne ecke hlijfa, Af þvi, ad þeir raaku og drifu Fangarana framm lengra j Edoms Land, og þeinktu ecke uppa Saattmaala Brædranna.

10. Helldur vil Eg senda eirn Elld j Zor Mura, hvør ed eyda skal hennar Høllum.

IV. 11. So seger DROTTinn, Sokum Þriggia og Fiøgra Edoms Synda, þa vil Eg ecke spara hann, Af þvi hann offokte sinn Brodur med Sverde, og j Hel sloo þær Olietu, og sundur reif þa ætijd med sinne Reide, og helldur æfenlega a sinne Grimmd.

12. Helldur vil Eg senda eirn Elld til Theman, Hann skal eyda Herbergiunum j Bazra.

V. 13. So seger DROTTinn, Fyrer sokum Þriggia og Fiøgra Synda þeirra Ammons Barna,

Börnn vil Eg ecke hlijfa þeim, þvi þeir sun-
dur slijta þær Oliettu j Gilead, hvar med
þeir giordu sijn Landamerke vijdare.
14. Helldur vil Eg uppkveikia eirn Elld a
Rabba Murum, hann skal uppeyda þeirra
Herbergium, nær Menn kalla a þeim Strijds
Tijma, og nær sa Vindur kiemur j þeirre
Storm-Olld,
15. Þa skal þeirra Kongur med sijnum
Höfdingium fœrast fangenn j burt, seger
DROTTinn.
VI. 16. So seger DROTTinn, Fyrer
sokum Þriggia og Fiogra Moabs Synda,
vil Eg ecke hlijfa þeim, þvi þeir brenndu upp
Kongsins Bein af Edom til Ösku.
17. Helldur vil Eg senda eirn Elld j Moab,
hann skal upp eyda Kirioths Höll, Og
Moab skal deya j Upphlaupe og Herope, og
Ludra Þyt.
18. Og Eg vil upprickia Domendunum
a medal þeirra, og alla hans Höfdingia med
honum drepa, seger DROTTinn.

## II. Capitule.

Amos bodar Guds Straff (I) yfer Juda; og (II) yfer Israel.

I. So seger DROTTinn, Sökum Þrig-
gia og Fiogra Juda Synda, vil Eg
ecke hlijfa honum, Fyrer þad þeir forsmaa
Lögmaal DROTTins, og hallda ecke hans
Riettinde, og laata sijnar (a) Lygar villa sig,
hvorium þeirra Fedur epter filgdu.

(a) (Lygar) Afguda-Dijrdkan og falskur Lærdomur.

2. Helldur vil Eg skicka eirn Elld j Juda,
hann skal upp brenna Hallernar j Jerusalem.
II. 3. So seger DROTTinn, Sökum
Þriggia og Fiogra Synda Israels, vil Eg
ecke hlijfa þeim, Þvi þeir selia þann Riettlaa-
ta fyrer Peninga, og þa Fatæku fyrer eitt (b)
Par Skoo.

(b) (Par Skoo) Sa Ogudlege giæfe ecke fyrer alla Sorgar Presta eitt Par af gomlum Skom.

4. Þeir troda Höfud Fatækra j Sau-
renn, og hamla Vegum hinna Voludu.
Sonurenn og Faderenn liggia hiaa eirnre
Stulku, med hvoriu þeir vanhelga Mitt Hei-
laga Nafn.
5. Og þeir leggia sig upp aa Pantsett Klæde,
fyrer ollum Olturum, og drecka Vijn j þeirra
Gllda Husum, fra þeim sem straffader eru.
6. Nu hefe Eg þo afmaad þann Amorita
fyrer þeim, Hvor so haar var sem Cedrus,
og hans Magt sem Eyke-Trie, og Eg afmaade
hans Avöxt, fra ofann verdu, og hans Root
ad nedann.
7. Og Eg færde ydur af Egypta-Lande, og
leidde ydur j Eydemorkenne j Fiorutijge Aar,
so þier skylldud eignast þad Land þeirra Amo-
rita.
8. Og Eg uppvakte Propheta af ydar
Bornum, og þa Nazarenos af ydrum un-
gum Sveinum, Þier Israels Born! Er
þad ecke so? seger DROTTinn.
9. So giefed þier þeim Nazareis Vijn ad
drecka, og bioded Prophetunum, og seged,
Þier skulud ecke spaa.
10. Siaa þu! Eg vil giora eitt Hryckt un-
der ydur, lijka sem þa einn Vagn fullur af
Byndenum hryckter.
11. Ad Sa sem er fliotur skal ecke undann
flya, og hinn sem er sterkur skal ecke par
megna, og sa hinn Megtuge skal ecke sijnu
Lijfe fordad gieta.
12. Og Boga Skytturnar skulu ecke vid
standast, og sa sem hradt kann ad hlaupa,
hann skal ecke umhlaupast, og sa sem rijdur
skal ecke biarga sijnu Lijfe.
13. Og Sa sem er Karl-Mennsku-mestur, a
medal Sterkra, skal hlioota ad flya Nakenn
a þeim Tijma, seger DROTTinn.

## III. Capitule.

Amos spaaer Israels Folke ad DRottenn vilie straffa þad med Raane, Bloods Uthelling, og Nidurbrote þeirra Husa og Alltara.

Þier Israels Born! Heyred hvad DRot-
tinn talar vid ydur, sem er, Vid allar

þær Ætter sem Eg utfærde af Egypta-Lande, og sagde.

2. Eg hefe einungis þeckt ydur af øllum Kinsloodum a Jordunne, þar fyrer vil Eg og heim vitia ydar, søkum allra ydra Misgiørninga.

3. Kunna nockud Tveir ad ganga til samans, utan þeir sieu sampycker siin a millum?

4. (a) Øskrar nockud Leoned j Skogenum, ef þad hefur øngva Broad? Greniar nockud eitt ungt Leon j siinu Inne, utann þad hafe nockud feinged?

(a) (Øskrar) Þad er, Eg hlyt ad predika, GUd skipar mier Þad, enn þier erud Søkenn og Efned, med ydar vondu Athæfe.

5. Fellur nockud Fugl j Snøruna a Mørkenne, þar sem eingenn er Fugla-Fangarenn? Tekur og nockud Madur Snøruna upp fra Jordunne, hafe hann ecke par veidt?

6. Blæs nockur j Ludur jnnann Stadar, ad Folkenu felmtre ecke? Er þar nockur Olucka j Stadnum sem DROTTENN giører ecke?

7. Þvi DROTTinn DROTTinn giører eckert, utann hann opennbere siinn Leyndar-Doom fyrer Prophetunum, siinum Þienurum.

8. Leoned Øskrar, Hvør skyllde ecke ottast? DROTTinn DROTTinn talar, Hvør skyllde ecke spaa?

9. Kunngiøred þad j Høllunum til Asdod, og þeim j Høllum Egypta-Lands, og seged, Heimtest samann uppa Fialled Samarie, og sioaed hvad stoort Heroop og Oriettur þar er.

10. Þeir ackta øngvañ Riett, seger DROTTENN, þeir safna liggiande Fie med Oriette og Roane, j siinum Høllum.

11. Þar fyrer seger DROttinn DROttinn so, Menn munu þetta Land umkringia a alla vegu, og sliita þig nidur fra þiinu Magtar-Velldc, og ræna þiin Hus.

12. So seger DROttinn, Liika sem eirn Hirder ut sliitur Tvö Knie, edur eitt Eyra ut af Munne Leonsins, So skulu og Jsraels Børn burt sliitast, sem bua j Samaria, og hafa siina Sæng j Hyrningum, og j Damasco eina Trie (b) Sæng.

(b) (Sæng) Sæng og Legu-Rum kallast Kyrkiur og Alltare, Es: 57. hvar þeir driijadu Hooruskap, Þad er Afguda-Dijrdkun, sem villde hann segia, þeir þiona Afgudum j Kroanne, edur edur j Damasco, og j Hornenu, þad er j Dan edur Bethel.

13. Heyred og vitned þad j Jacobs Huse, seger DROTTinn DROTTinn, GUD Zebaoth.

14. Þviad a þeim Tiima nær Eg vil heimsækia Jsraels Synder, þa vil Eg vitia Alltaresins j Bethel, og af briota Alltaresins Horn, so þau skulu falla til Jardar.

15. Og Eg vil bæde sloa Vetrar-Hus, og Sumar-Hus, og þau Fiilsbeina-Husenn skulu forganga, og mørg Hus skulu fordiarfast, seger DROTTinn.

## IV. Capitule.

Amos hotar þeim Riiku i Jsrael ad Þeir skule eydelagder verda af siinum Ovinum, fyrer Saker Jmislegra Synda.

Heyred þetta Ord, þier (a) Feitar Kyr, sem erud a Fiallenu Samarie, og giøred Rangt Naudþurftugum, og undertroded hina Fatæku, og seged til ydra Herra, Bered hingad, og laated oss drecka.

(a) (Feitar Kyr) Kyr og þeirra Hus, Bændur, eru þeir Afguda-Dijrkendur med siinum Afgudum, af hvørium þeir verda riiker, Ebr. Þier Basans Kyr.

2. Sa DROTTinn DROTTinn hefur svared vid Sinn Heilagleika, Sioaed! Sa Tiime kiemur yfer ydur, ad Menn munu utrickia ydur med Krokum, og ydar Epterkomendur med Fiske Aunglum.

3. Og þier skulud ganga ut j giegnum Snugurnar, hvør beint a framm fyrer sig, og þeir skulu j burt kastast til (b) Harmon, seger DROTTinn.

(b) (Harmon) Er maa skie þad Fiall Amanus, Hinumeigean sama Fialls var Jsrael burt fluttur j Assyriam.

4. Jaa, Komed hier til Bethel, og fremied Synd, og til Gilgal, ad þier giøred margar Syn-

Synder, og bered framm ydar Offur a Morgna, og ydar Tijunder þann Pridia Dag.

5. Og giored Reykelse af Surdeige til Packlætis Offurs, og prediked um sialfviliugt Offur, og kunngiored þad, Þviad þier Jsraels Born vilied þad giarnann so hafa, seger DROttinn DROttinn.

6. Þar fyrer hefe Eg giefed ydur j ollum ydar Stodum, (c) Jdiulausar Tennur, og Brauds Skort j ollum ydar Stødum, Þo samt og ææadur snued þier ydur ecke til Mijn, seger DROTTinn.

(c) (Jdiulausar) Hreinar, saklausar, sem øngvann Skada giøra Braudenn.

7. Eg hefe eirnenn junne hallded Regnenu yfer ydur, so leinge, ad enn voru Þrijr Mánuder til Haustirkiunnar, Og Eg liet rigna yfer þann eina Stad, enn yfer þann annann Stad liet Eg ei rigna, eirn Akurenn fieck Regn, og Sa annar Akur sem fieck ecke Regn, hann þornade upp.

8. Og Tveir, Þrijr Stader fooru til eins Stadar, ad þeir kynne Vatn ad drecka, og kunnu þad ei noog ad finna, Þo lijka samt og ææadur snerud þier ydur ecke til Mijn, seger DROTTinn.

9. Eg plaagade ydur med þurre Tijd, og med brenndu Korne, og Koal-Ormarner uppæatu allt þad sem ox j ydrum Allden-Gordum, Vijn-Gordum, a Vidsmiors-Triaanum, og Fikiu-Triaanum, þo snerud þier ydur ecke til Mijn, seger DROTTinn.

10. Eg sende Drepsott a medal ydar, lijka sem j Egypta-Lande, Eg jhel sloo ydar Æsku-Menn med Sverde, Og Eg liet ydar Hesta burt færast hertekna, Eg liet Olycktena af ydar Herbudum koma j ydar Naser, Þo snerud þier ydur ecke til Mijn, seger DROTTinn.

11. Eg kollvarpade nockrum a medal ydar, so sem GUD kollkastade Sodoma og Gomorra, ad þier vorud lijka sem Elldebrandur, ur Ellde utdreigenn, þo snerud þier ydur ecke til Mijn, seger DROttinn.

12. Þvi vil Eg so (d) frammveigis giora vid þig Jsrael, Og med þvi Eg vil so giora a moote þier, þa bu þig Jsrael, og mæt þijnum GUde.

(d) (Frammveigis) Eg vil og ææframm fara med Plaagur, þar fyrer giør Jdran, þad rædlegg Eg þier, fyrr enn þad tekur til.

13. Þvi sioa þu! Hann er Sa sem giorer Fiollenn, og skapar Vindana, og kienner Mannenum, hvad Hann skal tala. Hann giorer Morgun-Rodann og Mirkred, hann geingur uppa Hædum Jardarennar, Hann heiter DROttinn GUD Zebaoth.

## V. Capitule.

Amos talar um þa storu Eydelegging og Olucku, sem hange yfer Jsraels Huse, nema þad ville i Tijma hata hid Vonda, og elska hid Goda.

Heyred þetta Ord, þier af Huse Jsraels! Þviad Eg verd ad giora þessa Harma-Vijsu um ydur.

2. Jsraels Jungfru er fallenn, so hun mun ecke upp aptur standa, Hun er nidur hrundenn til Jardar, og þar er eingenn sem hiaalpe henne a Fætur.

3. Þvi so seger DROttinn GUD, Sa Stadur, af hvorium ut ganga Þusund, þar skulu ad eins Hundrad epter vera, Þar sem Hundrad ganga ut, þar skulu ecke nema Tiju epter blijfa, j Huse Jsraels.

4. Þar fyrer seger DROttinn til Jsraels Hus, Leited Mijn, þa munud þier lifa!

5. Leited ecke til Bethel, og komed ecke til Gilgal, og ganged ecke til Berseba, Þvi Gilgal skal hertekenn j burt færast, og Bethel skal verda Beth Auen.

6. Leited DROttins, þa skulud þier lifa, ad hann ecke sem eirn Elldur fare jnn a Josephs Hus ad uppbrenna þad, og þar skal eingenn vera, sem hann kann ad utslockva fyrer Bethel.

7. Þier sem snued Riettenum j Beiskleika, og slaaed Riettlæted til Grunna.

8. Hann

8. Hann giører (a) Siø-Stiørnurnar og Orion, Sa sem giører Morgunenn af Mirkrenu, og mirkva Nott af Deigenum, Sa sem kallar Vatned af Sionum, og utheller þvi a Jordena, hann heiter DROttinn.

(a) (Siø-Stiørnurnar) Hvøriar ed kallast Plejades.

9. Hvør ed Eydelegging lætur koma yfer þa enu Sterku, og Kollvarp færer yfer þa enu sterku Stade.

10. * Enn þeir eru Reider vid hann sem straffar þa j Portunum, og hallda fyrer Svijvirding þann sem heilnæmt kienner.

* Gal. 4, 16.

11. Nu sokum þess, ad þier undertroded þa Fatæku, og taked Korned fra þeim j stoorum Byrdum, þa skulud þier ecke bua j Husunum, þeim sem þier hafed biggt af høggnum Steinum, og eige helldur drecka þad Vijn, sem þier hafed plantad j kostulegum Vijn-Gørdum.

12. Þviad Eg veit ydar Yfertrodslur sem eru margar, og ydar Synder sem sterkar eru, hvørsu þier þreynged ad þeim Riettlaatu, og taked Blodgialld, og underþricked þa enu Faatæku j Portunum.

13. Þar fyrer hliota þeir Hygnu ad (b) þegia a þeim Tijma, þvi þad er vondur Tijme.

(b) (Þegia) Menn þurfa ecke ad predika, eingenn vill heyra edur hlyda þvi.

14. Leited þess Goda, enn ecke hins vonda, So þier meiged lifa, Þvi þa mun DROttinn GUD Zebaoth vera hiaa ydur, so sem þier hrosed.

15. * Hated þad Vonda, enn elsked þad Goda, skicked Riettenn j Stadar-Portunum, þa mun DROttinn GUD Zebaoth vera Miskunsamur yfer þa sem epter eru ordner af Joseph.

* Rom. 12, 9.

16. Þar fyrer seger DROTTinn Gud Zebaoth, Sa DROTTinn, So, Þar skal vera saargræteleg Kløgun a øllum Strætum, og Menn skulu segia a øllum Strætum, Vei! Vei! Og Menn skulu Akur-Mannenn til Sorgar kalla, og til saargrætelegs Kløgumaals, hvørn sem grææta kann.

17. Þar skal vera saar Kløgun j øllum Vijn-Gørdum, þvi Eg vil (c) fara medal ydar, seger DROTTinn.

(c) (Fara) Eg vil kienna ydur Sidu.

18. Vei þeim sem girnest Dag DROttins! Hvad skal hann ydur? Þvi DROttins Dagur er eitt Mirkur, enn ecke Lioos.

19. Lijka sem þa Madur flyde undann Leone, og Biarndyr mætte hønum, og so sem þa nockur kiemur j eitt Hus, og stydur sig med Hende vid Vegginn, og eirn Hogg-Ormur stingur hann.

20. Þviad Dagur DROTTins skal vera mirkur enn ecke lioos, dymmur og ecke biartur.

21. Eg er Reidur ydrum Helgedøgum, og Eg forsmaae þa, og Eg kann ecke (d) ad lyckta j ydvare Samkundu.

(d) (Ecke lyckta) Þad er, Ydar Reykelsis Offur þocknast Mier ecke, eg snurka þar vid.

22. Og þo ad þier offred Mier Brenne-Offrum og Matar-Fornum, þa hefe Eg þo ongva Þocknan þar a, so giet Eg eige helldur sied til ydars feita Þacklætis Offurs.

23. Tak ad eins fra Mier þitt Psalma Bulldur, þvi Eg giet ecke heyrt þitt Psalltara Spil.

24. Riettur enn skal openber verda sem Vatn, og Riettlæted sem strijdur Straumur.

25. * Hafed þier af Huse Israels offrad Mier Slatrunar-Offre og Mat-Offre, um þau Fiorutijgu Aarenn j Eydemørkunne? Ja vel. * Gb: P: 7, 42.

26. Þier baarud (e) Sichuth ydar Kong, og Chion ydart Bijlæte, þa Stiørnu ydvarra Afguda, sem þier sialfer giørdud ydur.

(e) (Sichuth) Lucas Act: 7, 42. 43. talar um þetta sama ødruviis, so sem þu kannt ad lesa j þeim stad, þad syneft þo so sem þad hafe vered nockur Guds Þionusta, sem þeir kolludu Sichuth, þad er Vog, Vernd, Forsvar (eins og vier høfum beded S. Sebastian, so sem annann Sichuth, a mote Drepsottenne) fyrer hvørn þeir villdu vera ugglauser fyrer øllu Illu, Eins hliodar og so Chion, so sem Viss, Stødugur, Ugglaus, af þvi ad þeir hafe fyrer hann bijhalded j Raadum, sier og sijnu, allt eins

og

og vier aakollum þa Heilögu, ad þeir skule bijvara oss þad Gott sem vier hösum, og hlijfa oss vid þvi jlla sem uppa kann ad koma.

27. So vil Eg lraata færa ydur hiedan, burt til Damascum, seger DROTTinn, sem heiter Gud Zebaoth.

## VI. Capitule.

Amos hotar Judæ og Jsraels Huse Fangelse og annarre Olucku.

Vei þeim Drambsömu j Zion! og þeim sem treysta uppa Fialled Samariæ, þeir sem hallda sig enu ypporstu yfer Heidingium, til hvorra Jsraels Hus er komed.

2. Ganged burt til Kalne, og skoded, og þadann til Hemath þess stora Stadar, og ganged ofann til Gath þeirra Philistea, sem vered hafa betre Konga-Rijke enn þesse, og þeirra Landamerke voru stærre enn ydar Landamerke.

3. Þier sem hygged ydur vera langt fra þeim vonda Deige, og sæked alltijd epter Ofbelldis Rijkis-Stiorn.

4. Og sofed a Legu-Rume af Filabeinum, og hafed ofmiked vid ydar Sængur, þier eted Lömbenn af Hiordenne, og þa öldu Kaalfana.

5. Og spiled uppa Psalltara, og dickted ydur Psalma sem David.

6. Og drecked Vijn af Skaalum, og og smyried ydur med Balsame, og harmed ecke par vegna Josephs Skada.

7. Þvi skulu þeir nu first undann ganga, a medal þeirra sem fangner eru j burt leidder, og Braml Of-Neytslunnar skal afleggiast.

8. Þvi DROTTinn DROTTinn hefur svared vid sijna Saal, seger DROTTinn Gud Zebaoth, Mier er leid Drambseme Jacobs, og Eg er reidur þeirra Hollum, og Eg vil yfergiefa Stadenn, og allt þad sem er j honum.

9. Og þo þar sie epter Tiju Menn j einu Huse, skulu þeir lijka vel deya.

10. Og hvor skal taka sinn Fodur-Brodur, og sinn Modur-Brodur, og bera þeirra Bein af Husunum, og segia til þeirra sem eru j Hus-Kimunum, Erud þier enn nu fleyre hier? Og þeir skulu svara, Aller eru þeir j burt, og hann skal segia, Vert til Frids! þvi þeir villdu ecke ad Menn skylldu hugsa uppa Nafned DROTTins.

11. Þvi sioa þu! DROTTinn hefur boded, ad Menn skylldu slaa þau storu Husenn, so þau rifne, og þau litlu Husenn, so þau trosne.

12. Hvor kann Hestenum a Skeid ad hleypa, edur ad eria med Uxanum uppa Steinunum? Þvi þier snued Laga-Riettenum j Gall, og Riettlætesins Avexte j Malurt.

13. Og þier hugged ydur þar vid, sem alldeilis er eckert, og seged, Erum vier ecke sterker nog med vorum Hornum?

14. Þar fyrer sioaed! Eg vil uppvekia eitt Folk yfer ydur af Jsraels Huse, seger DROTtinn Gud Zebaoth, þad skal naudga ydur af þeim Stad sem Menn ganga til Hemath, allt til Lækiarens j Eydemörkenne.

## VII. Capitule.

Amos spaaer (I) almennelega med nockrum Sionum, ad Jsraels Börnum se buenn Stor Eymd og Volæde. (II) Sier i Lage spaaer hann Amasia Kenne-Manne Hardung, Eymd, og Eydelegging.

1. DROTTinn DROTTinn vijsade mier eina Syn, Og sioa þu! þar stod Eirn sem giorde Eingespretttur j Upphafe, þegar Grodurenn upp kom, og sioa, þad græna stod, epter þad ad Kongurenn hafde lraated klippa sijna Saude.

2. Og þa þær villdu nu med öllu Urtenar upp eta j Landenu, þa sagde Eg, O DROTtinn DROTTinn! Vertu naadugur, Hvör vill hiaalpa Jacob upp aptur? þvi hann er miog lijtell.

3. Þa jdrade DROTTinn þess, og sagde, Nu vel! Þad skal ecke skie.

4. DROTTinn DROTTinn synde mier eina Syn, og sioa þu! Ad DROttinn DROTTinn kallade Elldenn, til ad straffa

med honum, ad hann skyllde fortæra eitt stort Diup, og hann aat allareidu eirn Part þar af.

5. Pa sagde eg, O DRottinn DRottinn! Laat af, Hvør vill hiaalpa Jacob upp aptur? Þvi hann er ad sønnu lijtell.

6. Pa angrade DROTTinn þad, og DROTTinn DROTTinn sagde, Pad skal og ecke skie.

7. Enn Hann vijsade mier þessa Syn, og sioa þu! DROTTinn hann stood uppa einum Mur, sem var mælltur med einum Mæle-Prœde, og hann hafde þann Mæle-Proad j sinne Hende.

8. Og DROttinn sagde til Mijn, Hvad sier þu Amos? Eg svarade, Eirn Mæle-Proad. Pa sagde DROttinn til Mijn, Sioa þu! Eg vil draga eirn Mæle-Proad midt j giegnum Mitt Folk Jsrael, og Eg vil ecke framar sioa yfer med honum.

9. Helldur skulu (a) Jsaacs Hæder j Eyde leggiast, og Jsraels (b) Kyrkiur skulu nidur briotast, Og Eg vil tilreida mig moote Jeroboams Huse med Sverde.

(a) (Jsaacs) Kyrkiann kallast so, epter þeim Patriarcha Jsaac, edur og so Jsraels Folk verdur kallad Jsaac, enn Spaamadurenn utleggur þad uppa Spott, þviad Jsaac þyder ad spotta.

(b) (Kyrkiur) Ebr. Helgedoomur.

II. 10. Pa sende Amasia Prestur j Bethel, til Jeroboams, Jsraels Kongs, og liet segia honum, Amos giører eitt Upphlaup moote þier j Jsraels Huse, Landed kann ei ad lijda hans Ord.

11. Þvi so seger Amos, Jeroboam skal deya fyrer Sverde, og Jsrael skal hertekenn burt flytiast af sijnu Lande.

12. Og Amasia sagde til Amos, Þu (c) Sioaande! Far burt, og flydu j Land Juda, Et þar Braud, og spaa þar,

(c) (Sioaande) Þu Prophete og Predikare.

13. Enn spaa þu ecke framarmeir j Bethel, þvi hier er Kongsins Helgedoomur, og hans Konungleg a Hus.

14. Amos svarade og sagde til Amasia, Eg er eingenn (d) Prophete, og einskis Propheta Son, Helldur em Eg eirn Kua Hirder, hvør ed saman safnar Mor-Berium.

(d) (Spaamadur) Þad er ecke af Spaamanna Ordu edur Søfnude.

15. Enn DROTTinn took mig fra Hiørdenne, og sagde til mijn, Far burt, og spaadu Mijnu Folke Jsrael!

16. So heyrdu nu Ord DROttins, Þu seger, Spaa þu ecke j moote Jsrael, og laat ecke driupa j moote Huse Jsaacs.

17. Þar fyrer seger DROttinn so, Þijn eigenn Kona skal verda ad eirnre Hooru j Stadnum, og þijner Syner og Dætur skulu falla fyrer Sverde, og þinn Akur skal utskiptast med Vad, Enn þu skallt deya j einu Ohreinu Lande, og Jsrael skal j burt rekast ur sijnu Lande.

# VIII. Capitule.

Gud DRottenn fyrerminnar Jsraels Eydeleggingu med fullvøxnum Sumar-Avexte j einne Korf.

DROttinn DROttinn vijsade mier eina Syn, Og sioadu! Þar stood ein Korf med Sumar-Avøxt.

2. Og Hann sagde, Hvad sier þu Amos? Enn Eg svarade, Eina Korf med (a) Sumar-Avøxt, Pa sagde DROttenn til mijn, Endenn er komenn yfer Mitt Folk Jsrael, Eg vil nu ei leingur hlijfa þeim.

(a) (Sumar-Avøxt) J Ebreskunne hlyda þau Tvø Ord, Sumar Avøxtur og Ending, nær þvi og eins, Kaitz og Keitz, og fer hann fra þvi eina, og til hins annars, og seger Sumar-Avøxturenn, Jaa, Enderenn er komenn, Eins og vier kynnum ad segia, Eg vil fæda þig, Eg vil eyda þier.

3. Og Saungurenn j þeirra Kyrkium skal snuast j Groat, a þeim sama Tijma, seger DROttinn DROttinn, skal þar liggia allstadar margur daudur Lijkame, hvøria Menn skulu leynelega j burt bera.

4. Heyred þetta Þier sem underþricked þa Faatæku, og fordiarfed þa aumu j Landenu.

5. Og seged, Nær vill Sa nye Maanudurenn soa Enda, so vier meigum selia Korned, og Sabbaths-Dagurenn, ad vier mættum laata Korned falt, og giora Mælerenn minne, og vexa Gialldeď, enn falsa Vicktena?

6. So vier mættum koma þeim Foatæku under oss fyrer Peninga, og þeim Naudþurftuga fyrer eina (b) Skoo, og selia Agner fyrer Korn.

(b) (Skoo) Fyrer allra-handa Naudþurft, hvøria þeir hliota so dyrt ad bitala.

7. DROttinn hefur svared j moote Jacobs Drambseme, Hvad gillder, ef Eg skal gleyma soddan þeirra Giørningum æfeunlega?

8. Skyllde nu ecke Landed bifast fyrer soddann Efne, og aller Innbyggiarar sorga? Joa, þad skal allt saman yferhlauped verda so sem med Vatne, og j burt færast, og yferhvoliast so sem med (c) Flodenu j Egypta-Lande.

(c) (Flodenu) Þad er, Nilus, sem hvort aar geingur a Egypta-Land, a Sumar-Tijmanum.

9. A þeirre somu Tijd, seger DRottinn DRottinn, vil Eg laata Solena nidur ganga um Middagenn, og laata Landed verda mirkt a lioosum Deige.

10. Eg vil snua ydrum Helge-Døgum j Hriggd, og øllum ydar Vijsum j Sorgar Groat, Eg vil færa Secke yfer allar Lendar, og giora øll Høfud Skøllott, og Eg vil senda eirn Groat yfer þa, lijka sem Menn hafa yfer einum Einka-Syne, og þeir skulu soa eirn hriggelegann Enda.

11. Sioa þu! Tijmenn kiemur, seger DRottinn DRottinn, ad Eg vil senda (d) Hungur j Landed, ecke Hungur epter Braude, edur Þorsta epter Vatne, helldur epter Þvi ad heyra Ord DRottins.

(d) (Hungur) Hvør sem ecke vill hlyda Guds Orde, hønum skal þad noogu langt fra koma, so hann skal alldrei faa þad funded, þegar hann giarnann gyrnest ad hafa þad.

12. Ad þeir skulu hlaupa hingad og þangad, fra einu Hafenu til Annars, fra Nordrenu og til Austurs, og leita epter Orde DROttins, og finna þad þo ei.

13. A þeim Tijma skulu fagrar Jomfrur, og unger Sveinar vanmegnast af Þorsta.

14. Þeir ed nu sveria vid (e) Bølvan Samarie, og segia, So Sannarlega sem þinn GUD j Dan lifer, So Sannarlega sem su (f) Skickan lifer, j Berseba. Þvi þeir skulu so falla, ad þeir skulu ecke kunna upp aptur ad standa.

(e) (Bølvan) So kallar hann þann Afgud, a hvørium þeir syndgudust, og forþientu Bølvanena.

(f) (Skickan) Þad er Su Guds Þionustugiørd j Berseba.

# IX. Capitule.

Amos helldur (I) Løgmaals Og (II) Evangelii Predikun fyrer Israels Børnum.

1. Eg soa DROttinn standa uppa Alltarenu; og hann sagde, Sloa þu uppa þad efsta Dyra-Tried, So ad Stoolparner bifest, þviad þeirra Agyrud skal koma yfer allra þeirra Høfud, Og Eg vil jhel sloa þeirra Epterkomendur med Sverde, so eingenn skal undann flya, edur nockur einn þar undann komast.

2. Og þo þeir græfe sig nidur j Helvijte, þa skal þo Mijn Hond færa þa þadann, eda þo þeir fære upp j Himenenn, þa vil Eg lijka vel sloa þa nidur þadann.

3. Og þo þeir fele sig uppa Fiallenu Carmel, þa vil Eg lijka vel leita þar epter þeim, og sækia þa þadann, Og þo þeir geymdu sig fyrer Mijnum Augum a Marar Botne, þa vil Eg þo bifala Høggormum ad þeir skule stijnga þa þar.

4. Og þo þeir geinge fangader burt fra sijnum Ovinum, þa vil Eg þo bifala Sverdenu, ad þad skal myrda þa þar. Þvi Eg vil hallda Mijnum Augum yfer þeim til Olucku, enn ecke til Gooda.

5. Þvi DROttinn DROttinn Zebaoth er slijkur, ad nær ed hann aahrærer eitt Land, þa broadnar þad; so ad aller Innbyggiarar hliota ad sorga, ad þad mun allt falla yfer

þa sem Vatn, og yfer þa fliota sem (a) Vatns-Flooded j Egypta-Lande.

(a) (Vatns-Flooded) Þad er Nilns.

6. Hann er Sa sem bigger sinn Sal j Himnenum, og grundvallar sijna Tiallbud a Jordunne, Hann kallar Vatned j Stonum, og utheller þvi a Jordena, Hann heiter DRottinn.

7. Erud þier Israels Born! ecke aalijka vid Mig, sem (b) Bloa-Menn, seger DRottinn? Hefe Eg ecke faert Israel af Egypta-Lande, og þa Philisteos af Caphthor, og þa Syrlendsku af Kir.

(b) (Bloa-Menn) GUd ut rekur jafnan eitt Folk med ødru, vegna Syndanna, so sem hann utrak Cananita fyrer Israels Folke, Syrlendska fyrer þeim af Kir, og þa Caphthora fyrer Philisteum, og sem Bloamenn hafa fordiarfad marga adra Lyde.

8. Sioa þu! Augu DROttins DRottins lijta uppa eitt Syndugt Kongs-Rijke, ad Eg skal þad med ollu af-maa af Jard-Rijke, Enn þo vil eg ei med ollu af-maa Jacobs Hus, seger DROttinn.

9. Enn sioa þu þo! Eg vil (c) befala, og laata sickta Israels Hus a medal allra Heidingia, so sem Menn sickta med Sealldre, og þau smaa Kornenn skulu ecke falla a Jordena.

(c) (Befala) Eg vil bivara Afleifarnar af Gydingum, enn þeirre Vantruudu Samkundu vil Eg burt kasta, og hana fordiarfa.

10. Aller Syndarar a medal Mijns Folks skulu deya fyrer Sverde, þeir sem segia, Olukkann mun ecke vera oss so naerre, og eige helldur maeta oss.

11. 11.* A þeim sama Tijma vil Eg upp aptur rietta þa nidurfallna Tialldbud Davids, og uppbyggia hennar nidur-brotna Vegge, og uppreisa þad aptur sem af er broted, og Eg vil uppbyggia hana aptur, so sem hun var aadur j fyrre Tijd. *Giorn: B: Post: 15, 16.

12. Uppa þad þeir eignest þa epterlaatnu j Edom, og þa epterlaatnu a medal allra Heidingia, hvorium Mitt Nafn predikast, seger DROttinn, sem soddan giorer.

13. Sioa þu! Su Tijd skal koma, seger DROttinn, ad Menn skulu under eins eria og uppskiera, og under eins Vijnberenn spreingia og saa, Og af Fiollunum mun driupa saett Vijn, og allar Haeder skulu Friosamar vera.

14. Þviad Eg vil umsnua Fangelse Mijns Folks Israels, ad þeir skulu uppbiggia þa Eyde-Stadena, og bua þar, planta Vijn-Garda, og drecka Vijn af þeim, giora Aldin-Garda, og eta Avoxt þar af.

15. Þviad Eg vil planta þa j þeirra Lande, so þeir skulu ecke meir upprickiast af þeirra Lande, hvort Eg vil giefa þeim, seger DROttinn GUD þinn.

Ending Prophetans Amos.



# Formaale yfer Prophetann Abdias.

Abdias seger ecke a hvorium Tijma hann hafe lifad, Enn hans Spaadoomar hlyda uppa þann Babyloniska Herleidingar Tijma, Þviad hann huggar Folked Juda þar med, ad þad skule aptur koma til Zion.

Og fierdeilis er hans Spaadoomur j moote Edom, edur Esau, Hvor ed sierlegt Hatur og Øfund hafde Eylijflega til Israels og Folksins Juda, so sem þad plagar almennelega ad ske, naer Viner verda Ovner, og fierdeilis ef ad Braedurner saa Hatur og Fiandskap hvor til annars, þa geingur Sa Fiandskappur ur ollu Hoofe, so voru þeir Edomitar hiner orgnstu Fiand-Menn Gydinga Lyds, og þad var þeim mest Glede, ad sioa Herleiding Juda, hloegdust um, og spottudu þa j þeirra Neyd og Mootgange, Hvorsu hardlega sem þad aller Prophetarner avijtudu þa Edomita, vegna slijkrar haturlegrar Hreckvijse, So sem Sa Hundradaste Þrytugaste og Siounde Psalmur klagar yfer þeim og seger, DROttinn! Minnstu Edom a Deige Jerusalem, þeir sem segia, Rijsed nidur, Rijsed nidur ofann j Grunn!

Nu

Nu med þvi ad slijkt er ur mäta þungt ad lijda, þa nockur eykur þeim Auma og Harmþrungna meire Hriggd (hvørn Meñ ættu med riettu ad hugga) og ofañ a hans Eymd, Hæder ad honum, spottar hann og spiar, og hælest um, Hvar med Truenn til Guds miøg reynest, og lijdur stoora Astrijdu, og hneigest til Vantruar og Ørvinlunar. Þvi setur GUd hier eirn sierlegann Propheta j giegn þessum leidenlegum Spotturum, og huggar þa Harmþrungnu, og stirker þeirra Tru, med Ognan og ävijtunar Ordum, til þessara haturlegu Edomita, sem däarudu og spottudu þa enu Sorgfullu. Hann lofar og fyrerheiter okomenne Hiälp og Huggun, Og þesse Abdias hefur vissulega vered nytsamlegur og naudsynlegur Huggunar-Madur, j þessare þeirra Ogiæfu og Moot-gange.

J Nidurlagenu späer hann ut af Christi Rijke, ad þad skule vera ecke ad eins j Jerusalem, helldur allstadar, Þvi hann saman slær øllum Þiodum j eitt, sem er Ephraim, Ben-Jamin, Gilead, Philistei, Cananei, Zarpath, hvad eige kann ut af Stundlegu Israels Rijke ad understandast, j hvørtu ad Kinslodernar og Folked var sundur greindt, epter Moses Løgum.

Enn þad Judar vilia hier ad Zarpath merke Franka-Rijke, og Sepharath Hispaniam, þad læt eg fara. Enn eg helld, ad Zarpath sie ein Borg nälæg Zidon, og Sepharad eirn Stadur, eda Hierad, j Assyria, þar ad þeir Herteknu j Jerusalem voru, so sem Textenn Liooslega seger, Og þeir Herteknu af Jerusalem sem eru j Sepharath, Þo mä hvør hallda þad hann vill.

# Prophetenn Abdias.

Abdias (I) bodar Edomitum Guds Reide; En (II) lofar Israelitum Guds Näd, fyrer Christum.

I. ÞEtta er Abdie Sion, So seger DROttinn DROttinn af Edom. Vier høfum heyrt af DROttne, ad þar skal ut sendur einn Bodskapur a medal Heidingianna, Rijsum upp, og läatum oss strijda a moote Henne!

2. Siä! Eg hefi þig lijtenn giort a medal Heidingianna, og miøg fyrerlitenn.

3. Drambseme þijns Hiarta hefur sviked þig, af þvi þu biost j Fialla-Klofum, j þijnum häfum Slotum, og seger j þijnu Hiarta, Hvør vill mier hrinda j Grunn!

4. Og þo þu færer enn so hätt upp j Hædernar sem Ørn, og giørder þitt Hreidur a millum Stiarnanna, samt þa vil Eg kollvarpa þier nidur þadann, seger DROttinn.

5. Þa ed (a) Þiofar og Ræningiar falla yfer þig, a Näattar-Þele, Hvernenn muntu þa ad ongvo verda? Jä, þeir skulu noog stela, og nær þeir Vijn-Berialesarar koma yfer þig, þa skulu þeir ecke Þar epter hiä þier läata, þad þu gieter epter lesed.

(a) (Þiofar) Þeir Chaldeansku kallast Þiofar, af þvi þeir skylldu ovarlega ræna Edom, þo ad þeir sialfer være og so aller Þiofar fyrer GUde, med þvi þeir eru aller Skalkar, sem aller adrer. Summa, eirn Þiofurenn verdur ad vera annars Þiofur.

6. Hvørsu þeir skulu þa rannsaka Esau, og leita epter hans Fiäarsiodum?

7. Aller þeir sem sambunded hafa vid þig, munu þig af Landenu reka, og þad Folked sem þu treyster uppa, skal þig svijkia, og yferfalla, Og þeir sem eta þitt Braud, skulu þig (b) forräda, ädur þu veitst þad.

(b) (Forräda) Ebr. Ponent sub te emplastrum.

8. Hvad gillder? seger DROttinn, Eg vil a þeim Tijma giøra Vijsenda-Mennena j Edom til einskis, og Hyggendenn a Fiallenu Esau.

9. Þviad þijner Sterku j Theman skulu ørvæntast, so ad þeir skulu aller med Morde upp rætter verda uppa Esaus Fialle.

10. Søkum þeirra Ofrijkes sem þu giørder þijnum Brodur Jacob.

11. A þeim Tijma sem þu stodst a moote honum, og þa þeir annarlegu burt færdu hans Her fangadann, og þeir Utlendsku fooru jnn um hans Borgarhlid, og løgdu Hlute yfer Jerusalem, Þa varstu lijka sem eirn af þeim, Þar fyrer skalltu verda til allrar Skammar, og vera upprættur æfennlega.

12. Þu skallt ecke framar meir siä so

þijna Lyst a þijnum Brodur, j hans Eym-
dar-Tijd, Og þu skallt ecke gledia þig yfer
Juda Bornum, a þeirra Motgangs Tijd.
Og þu skallt ecke tala so Drambsamlega med
þijnum Munne, j þeirra Hriggdar Tijd.
13. Þu skallt ecke jnnfara um Borgar-
Hlidenn mijns Folks, a þeirra Eymdar-Tij-
mum, Þu skallt ecke sioa Lyst þijna, a þeirra O-
forum j þeirra Sorgar-Tijd, Þu skallt ecke
senda j mote hans Herlide, j hans Motgangs-
Tijd.
14. Þu skallt ecke standa a Gatnamoo-
tum, til ad vega þa sem flya fra honum,
Þu skallt ecke forraada þa sem afgangs eru a
hans Sorgar-Tijd.
15. Þvi Dagur DROTTins er nææ-
lægur yfer ollum Heidingium, * Lijka sem þu
hefur giort, so skal þig aptur a mote skie, og
so sem þu hefur forþienad, so skal þier lijka
þad sama j Koll koma. *Luc: 6, 38.
Matth: 7, 2. Marc: 4, 24.
16. Þviad lijka sem þier hafed drucked a
Mijnu heilogu Fialle, so skulu aller Heidin-
giar daglega drecka, Ja, þeir skulu af drecka
og upsvelgia, so ad þad sie so sem þar hafe
alldrei neitt vered.
II. 17. Enn þar skulu enn þa nockrer vera
frelsader a Zions Fialle, og þeir skulu vera
einn Helgedomur, og Jacobs Hus skal þa
eignast, sem þa eignudu sier.
18. Og Hus Jacobs skal vera eirn Elldur,
og Josephs Hus eirn Loge, enn Esau Hus
eirn Halmur, hann skulu þeir upp kveikia, og
upp brenna, so ad þar skal eckert epter vera
af Esau Huse, þvi DROTTinn hefur þad
talad.
19. Og þeir j mote Sudrenu skulu eignast
Fiallbyggder Esau, og þeir sem j Dolunum
eru, skulu eignast Philisteos, Jaa, þeir skulu
eiga Ephraims Merkur, og Samarie Grund,
og BenJamin Gileads Fiall
20. Og þeir utreknu af Her Jsraels Bar-
na, hvorier ad eru a medal Cananeos, allt
til Zarpat, og þeir utreknu af Stadnum
Jerusalem, sem ad eru af Sepharat, þeir
skulu eignast þa Stadena j moote Sudre.
21. Og * Frelsarar skulu koma uppa Fial-
led Zion, ad dæma Esau Fiallbyggder, So
skal Kongs-Rijked verda DROttins.
*1 Tim: 4, 16. Luc: 2, 11.

Ending Prophetans Abdias.

# Formaale yfer Prophetann Jonam.

Sumer hallda, so sem Hieronymus vottar, ad þesse Prophetenn Jonas hafe vered Sonur þeirrar Eckiunnar j Zarepta, hiaa Zidon, hvør ed Eliam fædde j Hallæris Tijdenne, 1 Reg: 17. Luc: 4. Og hafa þad fyrer sier, ad hann sialfur nefner sig Son Amithai, þad er Sannleiks Son, þviad hans Moder sagde til Eliam, þa hann hafde uppreist hann af Dauda, Nu veit eg, ad Ord þijns Munns eru sannarleg.

Þessu maa trua hvor ed vill, eg true þvi ecke, Helldur hefur hans Fødurs Nafn vered Amithai, a Latinu Verax, a Norrænu Sann Ordur, og hann hefur vered af þeim Stad sem nefnest GathHepher, j Landenu Sabulons Ættar, Jos: 19. Þvi so stendur skrifad j Annare Bok Konganna 14. Cap: Jeroboam nææde aptur Landamerkium Jsraels, fraa Hemath, allt til Siaafarins, a Sliettlendenu, epter Ordum DROTTins Guds Jsraels, sem hann hafde talad fyrer sinn Þienara Jonam, Son Amithai, Propheta; af GathHepher. So og var su Eckia j Zarepta Heidenn, sem og Christur seger Luc: 4. Cap: Enn Jonas medkienner hier j 1 Cap: ad hann sie Ebreskur.

So hofum vier nu hier, Ad þesse Jonas hefur vered j Jeroboams Kongs Tijd, Sonar Sonar Jehu, J þann Tijma þa Usia var Kongur j Juda, a hvorium Tijma j þvi sama Jsraels Kongs-Rijke vered hafa Prophetarner, Hoseas, Amos, Joel, j ødrum Stødum og Lands-aalfum, Hvar ut af vel maa merkia, hvad merkelegur og dijrdlegur Mann þesse Jonas hefur vered j Jsraels Kongs Rijke, og Gud hefur fyrer hann giort mikla Hlute, sem er, ad fyrer hans Predikun hefur Jeroboam Kongur farsæll vered, so hann

hann vann aptur allt þad sem Hasael Syrlands Kongur hafde teked j fra Israels Kongs Rijke.

Enn þetta geingur þo yfer allt (þad hann medal sijns Folks giørde) ad hann þorde so megtugt Kongs Rijke j Assyria ad straffa, og Predikar fyrer Heidinginum, so Avaxtarsamlega, og kiemur þvi af Stad, sem hann med mørgum Aminningum og Predikunum ecke hefde gietad hiaa sialfs sijns Folke. So sem villde Gud hier med vijsa til þeirrar Maals-Greinar Esaiæ, Þeir sem þad hafa ecke heyrt, þeir munu heyra þad. Til eins Epterdæmis, ad aller þeir sem Orded hafa riikuglega, þeir forsmaa þad diarflega, Og þeir sem þad kunna ecke ad faa, þeir medtaka þad giarnann, So sem Christus sialfur seger, Matth. 21, 43. Guds Rijke skal takast fra ydur, og giefed verda Heidingium, sem skulu færa Avoxt þar af.

# Prophetenn Jonas.

## I. Capitule.

GUd DRottinn (I) skipar Jonas ad fara til Ninive; Enn (II) hann er mot-Þroannlegur, (III) Hvarfyrer hann mæter og so Straffe; og er (IV) svelgdur af einum Fiske.

I. ORd DROTTins skiede til Jonas
Amithai Sonar, og sagde.
2. Statt upp og gack j þann
stoora Stad Ninive, og Predika þu j hønum!
Þviad þeirra Illska er uppkomenn fyrer Mig.
II. 3. Enn Jonas stod upp, og flyde fyrer
DROTTne, og villde yfer um Sioenn, og
hann kom ofan til Japho. Og þa hann
fann eitt Skip, hvørt ed yfer Sioenn fara
villde, gaf hann Flutnings Pening, og stie
þar uppa, ad hann fære med þeim yfer um
Sioenn, fra DROTTne.
4. Þa liet DROttinn koma eirn mikenn
Storm yfer Sioenn, og þar vard Ofur-Vedur miked aa Sionum, so Menn meintu ad
Skiped munde j sundur brotna.
5. Og Skip-Mennerner voru hrædder, og
kolludu hvør a sinn Gud, og kostudu Farmenum af Skipenu j Sioenn, so ad þad skylldeliettast. Enn Jonas var geingenn ofann j
Skiped, laa og svaf.
III. 6. Þa gieck Skip-Herrann til hans, og
sagde, Þvi sefur þu? Stattu upp, kalla þu
a þinn GUd, ef verda mætte, ad GUd villde
hugsa til vor, so vier ecke forgaungum.
7. Og hvør sagde til Annars, Komed!
Vier vilium hlutast um, so vier mættum vita
Hvørs Skulld ad þetta er, ad oss geingur so
jlla. Og sem þeir hlutudust um, þa fiell Hlut-Falled yfer Jonam.
8. Þa søgdu þeir til hans, Seg þu oss!
Hvad kiemur til þess, ad oss geingur so Illa?
Hvørt er þitt Erende? Og hvadann komst þu?
Af hvøriu Lande ertu? Og fra hvøriu Folke
ert þu?
9. Hann sagde til þeirra, eg er eirn Ebreskur Madur, og eg ottast DROttinn GUd
af Himnum, hvør ed giørde Sio og Þurrlende.
10. Þa ottudust Mennerner miøg, og søgdu til hans, Þvi hefur þu soddann giørt?
Þvi þeir vissu, ad hann flude fra DROttne,
af þvi hann hafde sagt þeim þad.
11. Þa søgdu þeir til hans, Hvad skulum
vier þa giøra vid þig, so ad Siorenn mætte
stillast fyrer oss? Þviad Stoor-Siorenn var
ofurlegur.
12. Hann sagde til þeirra, Taked mig og
kasted mier ut i Sioenn, so mun Hafed sefast,
þvi eg veit, ad slijkt stoort O-Vedur kiemur fyrer mijnar Saker yfer ydur.
13. Og Mennerner (a) neyttu Orku, so
ad þeir kiæmust aptur til Lands, Enn þad
gaatu þeir ecke, Þviad Siorenn olgadest j
moote þeim.

(a) Ebr. Reru.

14. Þa kolludu þeir til DROTTins,
og søgdu, O DROTTinn! Laat oss ei fordiarfast fyrer þessa Manns Saal, og reikna
Þu oss ecke til saklaust Blood, Þviad Þu
DRottinn giører so sem þier lijtst! 15.

15. Og þeir tooku Jonam, og köstudu honum j Sioenn, þa stood Siorenn kirr af sinne Olgu.

16. Og Mennerner oottudust DROTTinn hardla mieg, og færdu DROTTne Foorner, og A-Heit.

(Cap. II.) IV. 17. Enn DROttinn sette til eirn stoorann Fisk ad svelgia Jonam, Og * Jonas var j Fiskfins Kvide, Þria Daga, og Þriar Nætur.

* Matth: 12, 40. Cap: 16, 4. Luc: 11, 29.

## II. Capitule.

Jonas (I) bidst fyrer i Fisknum; Og (II) kemst Lijfs af ur Fiskarins Kvide.

I. Og Jonas bad til DROttins Guds sijns j Kvide Fiskfins.

2. Og sagde. Eg kallade til DROttins j minne Neyd, og hann svarade mier, Eg hroopade ur Kvide Helvijtes, og Þu heyrder mijna Raust.

3. Þu varpader mier j Diuped midt j Sionum, so ad Votnenn umkringdu mig, Allar þijnar Boarur og Bylgiur geingu yfer mig.

4. So eg þeinkte, ad eg være j burt kastadur fra Þijnum Augum, eg munde ecke (a) framar meir sioa þitt Heilaga Mustere.

(a) (Framar-meir) J Ebreskunne stendur þad j Spurningu, Mun eg eiga ad sioa Mustered? þad a ad snuast negative. Þu skallt ecke hyrda hier um þa Ebraistas, Grammatistas, Hvørier j Skriftarennar Skilningi eru Rabbinistar, Þad er, Skinsemdarlaus Skiepna, þeir hafa øngva Greinesemе a Spamanna Þankum, sem þeir hafa haft um so hoarliktug Efne, þar fyrer kunna þeir ecke ad skilia þeirra Ord.

5. Vatned umkringde mig, allt til mijns Lijfs, Diuped gaf sig kringum mig, Þanged hullde mitt Hofud.

6. Eg sock nidur under til Grund-Vallar Fiallanna, Jordenn hafde jnnelokad mig æfennlega, Enn þu DROTTinn minn GUD færder mitt Lijf fra Glotunenne!

7. Þa mijn Soala (b) orvinladest medur mier, þa minntest eg a DROTTinn, Og mijn Bæn kom til Þijn j þitt Heilagt Mustere.

(b) Ebr. Dodnade jmier.

8. Þeir sem (c) hallda sier vid þad sem einskis verdt er, þeir forlaata þeirra Naad.

(c) A Norrænu; Verk-Heilager og Hræsnarar yfergiefa sinn Gud og Christum, vegna sinnar einskis verdrar Guds Þionustugiørdar.

9. Enn Eg vil med Þacklæte offra, Mitt Heit vil eg DROTTne bitala, þad Hann mier hioalpad hefur.

II. 10. Og DROTTinn sagde til Fiskfins, og hann spio Jona uppa Landed.

## III. Capitule.

Jonas seger fyrer (I) ad DROTTenn vilie straffa Ninivita, Enn (II) þeir giora Jdran, og (III) finna Naad hia Gude.

I. Og Ord DROTTins skiede j annad Sinn til Jonam, og sagde.

2. Stattu upp, og gack j þann stora Stad Ninive, og predika fyrer þeim þa Predikun sem Eg seige Þier!

3. Þa reis Jonas upp, og gieck j burt til Ninive, so sem DROTTinn hafde sagt, Enn Ninive var einn Guds Stadur, þriggia Dag-Ferda stor.

4. Og sem Jonas tok til ad ganga j Stadenn, og var komenn eina Dags-Reisu, Predikade hann, og sagde, Enn nu eru Fiorutijge Dagar, þa mun Ninive forganga!

II. 5. * Þa trude Folked j Ninive a Gud, og lietu predika, ad Menn skylldu fasta, og þeir klæddust Seckium, bæde storer og smaer.

* Matth: 12, 41. Luc: 11, 32.

6. Og sem þetta kom fyrer Kongenn j Ninive, stod hann upp af sijnu Tignar-Sæte, og afskrydde sig sijnum Purpura, og sveipade sig einum Seck, og settest j Osku.

7. Og liet uthroopa, og segia j Ninive epter Skipun Kongsins, og hans Magtar Manna, so, Þar skulu hvorke Menn nie Dyr,

ei Naut nie Sauder, nockud ſmacka, og eingenn ſkal þeim nockud ætt giefa, ecke helldur lààta þau drecka Vatn.

8. Og bæde Menn og Dyr ſkulu ſveipa ſig Seckium, og hroopa til Guds akaflega, Og hvor ſkal ſnua ſier fra ſijnum vonda Veige, og fra Jllſku ſinna Handa.

9. Hvor veit? GUD mætte umſnua ſier, angra þad, og ſnua ſier fra ſinne grimmre Reide, ſo vier fordiorfunſt ecke.

III. 10. Og ſem GUD ſaa þeirra Verk, ad þeir ſneru ſier fra ſijnum vonda Veige, angrade Hann þad Vonda ſem Hann hafde ſagt, ad hann villde giora þeim, og giorde þad ecke.

## IV. Capitule.

Hvernin ad Jonas miſlijkade, þad GUd var Lijknſamur vid þaa i Ninive.

Þad miſlijkade Jona ofur-miog, og hann vard reidur.

2. Og bad til DROTTins og ſagde, O Herra! Þetta er þad, ſem eg ſagde, þa eg var enn j mijnu Lande, hvar fyrer eg villde og ſo hafa komeſt undann, ad flya a Sioenn, Þviad eg veit, ad Þu ert Naadugur, Miſkunſamur, Þolennmodur, og af mikellre Giæſku, og lætur þig angra þad Vonda.

3. So tak nu DROttinn mijna Ønd fra mier, Þvi eg vil helldur deya enn lifa!

4. Enn DROTTinn ſagde, Hyggur þu, ad þu reideſt med Riettu?

5. Og Jonas gieck ut af Stadnum, Og ſette ſig til Auſturs, hiaa Stadnum, og giorde ſier þar eitt Hreyſe, þar ſetteſt hann nidur under Skugganu, þangad til hann ſæe hvad yfer Stadenn munde koma.

6. Og DROTTinn GUD liet upp vaxa eitt Gras-Kar, þad vox yfer Jonam, ſo þad gaf Skugga yfer hans Høfud, og frijade hann fra þvi ſem honum var Mein ad, Og Jonas gladdeſt miog af þvi Gras-Kare.

7. Enn DROTTinn til-ſette eirn Orm um Morgunenn, þa Morgun-Rodenn kom upp, ſa ſtack Gras-Kared, ſo þad upp þornade.

8. Og ſem Solenn var upp komenn, ſende GUD eitt þurt (a) Auſtan-Vedur, og Solar-Geiſlenn ſkein a Høfud Jonas, ſo hann vard maattlaus. Þa ooſkade hann ſinne Saalu Dauda, og ſagde, Eg vil helldur deya enn lifa!

(a) Ebr. Sterkt, þiotande, dynjande.

9. Þa ſagde GUD til Jonam, Hugſar þu, ad þu reideſt med riettu, vegna þeſſa Gras-Kars? Og hann ſagde, Eg reideſt med Riettu allt til Dauda.

10. Og DROttinn ſagde, Þu kiemmer j Brioſte um Gras-Kared, fyrer hvoriu þu eckert Erfide hafder, og ecke helldur lietſtu þad vaxa, hvort a eirnre Nottu vox, og a eirnre Nott fyrerfooꝛſt.

11. Og ſkyllde Eg ecke ſiaa aumur a Ninive, ſo ſtoorum Stad, j hvorium ad eru meir enn Hundrad og Tuttugu Þuſunder Manna, hvorier øngvann Greinarmun vita, hvad þid Hægra eda Vinſtra er, og þar med Fiolde Dyra.

Ender Spaamannſins Jonas.



# Formaale yfer Prophetann Micheam.

Spaamadurenn Micheas hefur vered ſamtijdes Eſaia, Hann hefur þau ſømu Ord ſem ſtanda j 2 Cap: Hvar af vel maa merkia, Hvørnenn ad Prophetarner, Þeir ſem ſamtijda hafa lifad, þeir hafa med eins Ordum predikad ut af Chriſto, ſo ſem hefdu þeir hvor annann Raada ſpurt þar um.

Hann er eirn af þeim hellſtu Spaamønnunn,

 ſem

sem hardlega straffar Folked, vegna sinnar Afguda Dijrdkunar, og vottar ut af Christo jafnlega, og Hans Rijke, sem koma skyllde. Og framm yfer alla adra, er hann j þvi eirn Sierlegur Prophete, ad hann nefner, og vijsar so viist ad þeim Stad Bethlehem, þar Christur skyllde fædast. Hvar af hann hefur stooran Prijs j þvi Gamla Testamentenu, so sem Mattheus ut vijsar j 2 Cap:

Snøggt ad segia, Hann straffar, hann spaaer, hann predikar. Enn þetta er hans endeleg Meining. Þo aller Hluter til Grunns gange, bæde Israel og Juda, þa skal samt Christus koma, Sa ed alla Hlute skal lagfæra. Eins so sem vier nu a þessum Dø-gum hliotum ad straffa, Avita, Hugga og predika, og etc. Og þar ofann a ad segia, þo þad keme allt til einskis, þa mun þo Christus koma a þann Sijdarsta Dag, og oss leysa fra allre Olucku.

J Firsta Cap: er hann vandskilenn og þungur, Þad giører Su Hebreska Grammatica, hann hefur so margar Allusiones, sem er Zaenan fyrer Schaenan, og Achsib, og Maresa, og etc. Hvor Ord hann ta-'ar i verre Meining, og umsnyr þeim, So sem eg segde, Roma! þu skallt vera rum, edur miøg utrymd. og etc. Wittemberg! þu skallt vera eitt vijdt Biarg,

Þetta munu Grammatici vel finna,
og forme'kia vora
Kostgiæfne.

# Prophetenn Micheas.

## I. Capitule.

Micheas spaaer (I) ad DRottenn munde straffa Canaans Lands Jnbyggiara; Og (II) ad nockru leite þa i Samaria; Og eins (III) ad nockru leite þa i Juda Kongs Rijke.

I. Þetta er þad Ord DROTTins, sem skiede til Micheas af Maresa, a Dogum Jotham, Achas, Ezechias, Juda Konga, hvad hann sa yfer Samaria og Jerusalem.

2. Heyred allt Folk! Gief Gaum ad þu Land, og allt þad sem þar-inne er! Þvi ad DROTTinn GUD (a) hefur talad vid ydur, Jaa, DROTTinn af sijnu Heilogu Musterе.

(a) Ebr. Mun vera a medal ydar til eins Vitnis.

3. Þviad siaaed! DROTTinn mun ut fara af sijnu Takmarke, og fara ofann, og ganga uppa Hædernar j Landenu.

4. So ad Fiollenn skulu braadna under hø-num, og Dalerner j sundur klofna, Lijka sem Vax braadnar fyrer Ellde, so sem Vatn, þad sem fellur ofann a moote.

5. Þetta allt samann fyrer Jacobs Yfertrodslu Skulld, og søkum (b) Synda Hussens Jsraels. Enn hvør er Yfertrodsla Jacobs? Er þad ecke Samaria? Og hvoriar eru Juda Hæder? Er þad ecke Jerusalem?

(b) (Synda) þad er, Afauda Dijrdkunar, hvør ad og so er ein Hooran, hvorrar Laun og Avinningur er Renta og Gots soddan Stiftanar, hvør ad eru Hooru-Laun, og verda ad Hooru-Launum aptur, þvi þau falla þeim Ogudlegu til Hlutskiptis.

II. 6. Og Eg vil giora Samaria ad einnre Griothrugu j Mørkenne, sem Menn hlada upp j kringum Vijn-Gardana, og Eg vil draga hennar Steina j Dalenn, og nidurbriota j Grunn.

7. Aller hennar Afguder skulu j sundur briotast, og øll hennar Hooru-Laun skulu brennast med Ellde, og Eg vil j Eyde leggia øll hennar Bilæte, Þviad þau eru samansøfnud af Hooru-Launum, og þau skulu aptur verda ad Hooru-Launum.

8. Þar yfer hlyt eg ad kveina og veina, eg maa ganga ræntur og nakenn, eg maa klaga sem Drekar, og Yla sem Struts-Fuglar.

9. Þvi þar eru eingenn Raad til þeirrar Plaagu sem komenn er allt ad Juda. Og skal taka allt til Mijns Folks, til Port-Dyranna j Jerusalem.

10. Kunngiored þad þo ecke j Gath, Laated ecke heyra ydvarn Graat, Helldur fared j ydar Sorgar-Herberge, og (c) sitied j Øsku.

(c) Ebr. Velltu þier siaalfum j Dupte, j Haphrah Huse.

III. 11. Þu hinn Fagre (d) Stadur hlytur i burt

burt med allre Skømm! Hun sem byr j Zae-
nan skal ecke ut fara, søkum Sorgar þeirra
nærstu Husanna, Hann mun taka þad fra
ydur, þegar hann legrar sig þar.

(d) Ebr. Þu sem byr j Saphir, og ert blygdunarlega
rakenn, far þangad! Sa sem byr j Zaenan geingur
ecke ut, til ad græta yfer Beth Haezel, Ovinurenn
mun faa Laun fyrer sitt langt Umsæatur.

12. Sa (e) Sorgfulle Stadur gietur ecke
huggad sig, þvi Oluckann skal koma fra
DRottne, og so jnn til Portanna j Jerusalem

(e. Ebr. Hann sem bio j Maroth var sturande af þvi
hinu Gooda sem hun mißte.

13. Þu Lachis Stadur! Spenn þu fyrer
Hlauparana, og far þadann, þvi þu ert Zions
Dottur upphaf til Synda, og Israels Yfer-
trodslur eru fundnar j þier.

14. Þu munt Fangara hlioota giefa, so
vel sem Gath. Stadurenn Achsib skal breg-
dast Israelis Kongum.

15. Eg vil færa þann rietta Erfingia til þijn
Maresa! og Israels Vegsemd skal koma allt
til Adullam.

16. Laat af þier raka Haared, og gacktu
Skollott, yfer þijnum kræselegu Børnum,
Gior þu þig med ollu Skollotta sem ein Orn,
þvi þeir eru færder fangader fra þier.

# II. Capitule.

Micheas bodar Juda Stoorkostlegt Straff, vegna
sijns Mikla Ogudleglеika.

Vei þeim sem stunda til ad giora Skada,
og umgangast med jlla Hrecke j þeirra
Legu-Rumum, so þeir fullgiøre þad snema, þe-
gar lioost verdur, þvi þeir hafa Magtena!

2. Þeir slijta Akrana til sijn, og taka þau
Hus sem þa gyrner a, so giora þeir Ofrijke a
hvørs Manns Huse, og a hvørs Manns Arfe.

3. Þar fyrer seger DROTTENN so,
Sioa þu! Eg hugsa þessare Kinslood jllt, un-
dann hvørin þier skulud ecke leida ydar Haal-
sa, og þier skulud ecke ganga so leingur
Drambsamlega framm, þvi þad skal verda
ein Vond Tijd.

4. A þeim Tijma munu Menn giora eirn
Maalshaatt um ydur, og klaga, Þad er ut-
giørt (munu Menn segia) vier erum eydelag-
der, Landed Mijns Folks fær eirn annarle-
gann Herra! Nær skal hann skipta oss þeim
Okrum aptur, sem hann hefur teked fra oss?

5. Jaa vel, þier skulud ongvum Hlut epter
hallda j Samkundu DROTTins.

6. Þeir segia, Menn skulu ecke (a) driupa,
þviad soddann Dropar koma ecke a oss, Ecke
munum vier so ad Skømm verda.

(a) (Driupa) Þad er, Predika.

7. Jacobs Hus huggar sig so, Meinar þu,
ad Ande DROTTins sie stuttur ordenn?
Skyllde hann vilia soddann giora? Þad er
satt, Mijn Ræda er Godum vinsamleg.

8. Enn Mitt Folk hefur uppreist sig sem
eirn Ovinur, þvi þeir ræna bæde Kyrtlum og
Kaapum fra þeim sem ugglaust ganga
framm, lijka sem þeir ed koma ur Strijde.

9. Þier utreked Mijns Folks Kvinnur,
fra þeirra Kiærum Husum, og taked alltijd
Mijna (b) Pryde fra þeirra Børnum.

(b) (Pryde) Hvad Eg hefe þeim giefed, þad taked
þier fra þeim.

10. Þar fyrer bued ydur, þier hlioted j
burt hiedann! Þier skulud ecke vera hier,
fyrer þeirra (c) Ohreinleika hliota þeir hard-
lega ad verda foreydder.

(c) (Ohreinleika) Afguda-Dijrdkun.

11. Ef eg være eirn Villu Ande, og eirn Lyga-
Predikare, og predikade hvørsu þeir skylldu
drecka og svelgia, þad være eirn Predikare
fyrer þetta Folk.

12. Enn Eg vil þier Jacob! olldungis til
samans safna, og til samans færa þad epter
er j Israel. Eg vil leida þa til samans sem
eina Hiord, og laata þa j eirn (d) fastann
Stall, og lijka sem eina Hiord j eitt Sauda-
Hus, so þar skal verda Nidur af Mann-
Mergdenne.

(d) (Fastann Stall) Hann talar um Rijked Christi,
sem er vor Kappe, sa er j giegnum hefur brotest og
Veigenn giort fyrer oß j giegnum Daudann, Synd,
Diøful og alla Olucku: Alleinasta, strax epter Hø-
num! etc. Ebr. Eg vil setia þa hvørn hia ødrum,
so sem Bozra Saude.

13. Einn Sa skal undan þeim upp fara, sem
j gieg-

j giegnum brytst, Þeir skulu briotast framm og fara j giegnum Portenn, ut og jnn, og þeirra Kongur skal ganga fyrer þeim, og DROttenn Firstur undann.

# III. Capitule.

Micheas straffar Juda Gudley'e (I) J þeirre Veralldlegu, (II) J þeirre Andlegu, og (III) J Hveru tveggie Stettenne.

I. Og Eg sagde, Heyred þo Þier Hofudenn j Jacobs Huse, og Þier Hofdingiar j Huse Jsraels! Þier skylldud vera med riettu þeir sem Riettenn vissu.

2. Enn þier hated þad Goda, og elsked þad Vonda, þier floæd Hudena af þeim, og Kioted af þeirra Beinum.

3. Og eted Kiot mijns Folks, Og þa þier hafed dreiged Hudena af þeim, þa sundur brioted þier og so þeirra Bein, og sundur hoggved þau, sem j eirn Pott, og lijka sem Kiot j eirn Kietel.

4. Þar fyrer, nær Þier kalled til DROttins, þa skal hann ecke bænheyra ydur, Helldur skal Hann byrgia sitt Andlit fyrer ydur, a þeim sama Tijma, so sem þier hafed forþient med ydar vondre Breytne.

II. 5. So seger DROttinn a mote þeim Prophetunum, sem villa Mitt Folk, Þeir predika, ad þad skule ganga vel, nær Menn giefa þeim nog ad eta, Enn sie þeim eckert j Munnenn giefed, þa predika þeir, Hier skal koma eitt Strijd!

6. Þar fyrer skal ydar (a) Sion verda ad Nottu, og ydar Spaadomur ad Myrkre. Solenn skal ganga under yfer þeim Prophetum, og Dagurenn skal mirkvast yfer þeim.

(a) (Sion) Ydar Predikun og Lærdomur.

7. Og Siaaendurner skulu ad Skomm, og Spaamennerner skulu ad Spotte verda, og aller skulu þeir byrgia sijna Munna, þviad þar mun eckert Guds Ord vera.

8. Enn eg er fullur af Krapte og Anda DROttins, fullur Riettar og Stirks, So eg þore ad segia Jacob til sinna Misgiorda, og Jsrael til sinna Synda.

III. 9. So heyred nu þetta Þier Hofudenn j Huse Jacobs, og Þier Hofdingiar j Huse Jsraels, Þier sem forsmaaed Riettenn, og umsnued ollu þvi sem riett er.

10. Þier sem uppbygged Zion med Blode, og Jerusalem med Ranglæte.

11. Hennar Hofud dæma fyrer Gaafur, Hennar Prestar kienna fyrer Laun, og hennar Prophetar spaa fyrer Peninga, þeir forlaata sig a DROttinn, og segia, Er ecke DROttenn med oss? Þar kann eingenn Olucka ad koma yfer oss.

12. Þar fyrer skal Zion verda plægd sem eirn Akur, ydar vegna, og Jerusalem skal verda ad Stein-Hrugu, og Fialled Musteresins ad eirnre (b) Eyde-Hæd.

(b) Ebr. Til Hæda j Skoogenum.

# IV. Capitule.

Micheas spaaer (I) um Christi Rijkes Dijrd; og (II) Aminner þa Faungudu i Babylon til Þolennmæde.

I. Enn a þeim Sijdurstu Dogum mun þad Fialled, a hvoriu ed Hus DROttins stendur, vissulega hærra vera enn oll Fioll, og upphefiast yfer allar Hæder. Og Folked skal hlaupa þar til.

2. Og marger Heidingiar skulu fara og segia, Komed! Laatum oss ganga upp til Fialls DROttins, og til Hussens Guds Jacobs, so Hann lære os sijna Vegu, og vier skulum ganga a hans Gotum, þvi Logmaaled mun utganga af Zion, og Ord DROttins af Jerusalem.

3. Hann skal (a) dæma a medal mikels Folks, og straffa marga Heidingia j fiarlægum Londum, þeir skulu giora sijn Sverd ad Ploog-Jaarnum, og þeirra Spiot til Sigda, Og þar skal eckert Folk reisa Sverd a mote odru, og þeir skulu ecke þadan j fra læra ad strijda.

(a) (Dæma) Guds Ord skal utganga um allann Heimenn.

4. Hver skal bua under sijnu Vijn-Trie og

og Fijkiu-Trie, enn Otta, þviad DRottins Zebaoths Munnur hefur sagt þad.

5. Þviad hvert Folk skal ganga j sijns Guds Nafne, Enn vier skulum ganga j Vors DRottins Guds Nafne, ætijd og æfennlega.

6. A þeim sama Tijma, seger DRottinn, vil Eg samansafna Holltum, og þeim Utreknu til samans koma, og þeim sem Eg hefe plagad.

7. Og Eg vil giora þa Holltu, ad þeir hafe Erfingia, og þa Utskufudu ad miklu Folke, og * DRottinn skal vera Kongur yfer þeim a Fiallenu Zion, hiedan j fra og ad Eylijfu. *Luc. 1, 33.

8. Og þu Turnenn Eder, ein Festing Zions Dottur! Þijn (b) Gyllene Roosa skal (c) koma, Su fyrre Yferbodanenn, sem er Kongs-Rijke Dotturennar Jerusalem.

(b) (Gyllene Roosa) Þitt Kongs-Rijke, þo þad ganse veiklega til, þa samt skal og hlytur þad framm ad koma, þar fyrer hallt þier þar vid, og vert Þolennmodur, Christi Kyrkia verdur ad fædast af Krossenum.

(c) (Koma) Alii sic, Usqve ad te veniet.

II. 9. Hvar fyrer helldur þu þier nu þa til annara Vina? Er ecke Kongurenn hiaa þier? Og eru aller þijner Raadgiafar j burt? So ad þar er komenn soddann Hrelling yfer þig, sem yfer eina sem er j Barns-Neyd.

10. O mijn Hiartanlega! Lijd þu soddan Hrelling, og styn Þu Dotter Zion! lijka sem su hin Jodsiuka, þvi þu maatt ad sönnu ut af Stadnum, og bua a Morkenne, og koma til Babylon, Enn þu skallt frelsast þadann aptur, DRottinn mun þa frelsa þig fra þijnum Ovinum.

11. Þvi marger Heidingiar munu flyckiast j mote þier, og segia, Hun er forbodud, vier vilium siaa vora Lyst a Zion.

12. Enn þeir vita ecke DRottins Hugsun, og merkia ecke Hans Raadagiord, ad Hann hefur safnad þeim til samans, lijka sem odru Bindene j Korn-Hlodu.

13. Þar fyrer þa rijs þu upp, og (d) þresk, Þu Zions Dotter! þvi Eg vil giora þier Jaarn-Horn, og Kopar-Klaufer, og þu skallt j sundur slaa margt Folk, So vil Eg heita ad giefa DRottne þeirra Gots, og þeirra Eigner Þeim sem Drottnar yfer ollum Heime.

(d) (Þresk) Þu skallt þreskia Babylon, og allt j ollum Heimenum, hvorsu sem þu hlytur nu ad lijda þad ad bæde Babylon og Rom eyder þijnum Domendum og þijnu Rijke.

14. Enn þu Strijds-Kvinna, Herklædstu! þvi Menn munu umkringia oss, og slaa Israels Domendur a Kinn-Beinenn med Keypum.

# V. Capitule.

Micheas spaer (I) um Christi Fædingar Stad; Og (II) um Frelse Truadra.

I. Og * Þu Bethlehem Ephrata! Þu sem ert lijtel a medal Þusunda j Juda, ut af Þier skal Mier koma Sa sem vera skal Herra j Israel, hvors Utgangur ad vered hefur fra Upphafe, og þegar fra Eylijfd.

*Matth: 2, 6. Joh: 7, 42.

II. 2. Enn þess a (a) millum lætur Hann plaga þa, Allt til þeirrar Tijdar, ad Su sem fæda skal, hefur fædt. So munu þa hans epter blijfande Brædur aptur koma til Israels Barna.

(a) (Millum) Lætum plaga hvor plaga vill, þar til Sa kiemur med Evangelium, Hann mun hafa Sigurenn.

3. Enn Hann mun upp standa og foodra j Krapte DROTTins, og j Sigre sijns Guds Nafns. Og þeir skulu bua, Þvi Hann skal blijfa veglegur a þeirre somu Tijd, so vijdt sem Verolldenn er.

4. Þar til munum vier og hafa Frid fyrer Assur, sem er nu jnnfallenn j vort Land, og hefur under troded vor Hus. Þviad (b) Sio Hyrdarar, og atta Hofdingiar, skulu uppvekiast a moote honum.

(b) (Sio) Þeir af Persen og Meden skulu a medan underþryckia þa Assyrianskv, þangad til Christus kiemur, hvor ed olldunges med ollu mun oss frija.

5. Hvorier fordiarfa skulu Landed Assur med Sverde, og Nimrods Land med þeirra berum Vopnum, so munum vier frelsast fra Assur, sem er jnnfallenn j vort Land, og hefur nidur troded vor Landamerke.

6. Og þad sem epter er af Jacob skal verda a medal margs Folks lijka sem ein Dogg af DROTTne, og lijka sem Dropar a Grase, þad sem epter ønguum bydur, eige helldur vonar a Mennenna.

7. Ja, þeir sem epter eru ordner af Jacob skulu vera a medal Heidingia hia morgu Folke, lijka sem eitt Leon a millum Dyra j Skoge, lijka sem eitt ungt Leon a millum eirnrar Sauda-Hiardar, hvoriu eingenn gietur (c) hamlad, nær þad geingur þar j giegnum, nidur tredur, og j sundur rijfur.

(c) (Hamlad) So giører Evangelium j Verølldenne, Hvørsu sem Helvijtis Portum lijkar þad jlla.

8. Þviad Þijn Hond skal vinna Sigurenn a øllum þijnum Mootstødu-Mønnum, so ad aller þijner Oviner skulu afmoader verda.

9. A þeim sama Tijma, seger DROTTinn, vil Eg þijna Hesta burt fra þier taka, og þijna Vagna fordiarfa.

10. Og uppræta allar þijnar Borger j Landenu, og nidur briota alla þijna fasta Stade.

11. Og Eg vil uppræta alla Tofra-Menn hia þier, so eingenn Teikna-Utþydare skal vera hia þier.

12. Eg vil upp rickia þijnum Bijlætum, og þijnum Afgudum fra þier, so þu skallt ei þadann j fra tilbidia þinna Handa Giørninga.

13. Og Eg vil nidur briota þijna Lunda, og afmaa þijna Stade.

14. Og Eg vil hefnast med Grimmd og Reide a øllum Heidingium, sem ecke vilia hlyda.

# VI. Capitule,

Micheas (I) setur Guds Velgiørder Jsraels Børnum fyrer Sioner; Og (II) uptelur nockrar af þeirra Syndum (III) med þvi Straffe sem þar kiæme epter.

1. Heyred þo hvad DROTTinn seger! Stattu upp og straffa Fiollenn, og lat Hædernar heyra þijna Raust!

2. Heyred þier Fioll! Hvornenn DROTTinn vill straffa, og Þier sterku Jardarennar Grundveller! Þviad DROTTinn vill avijta sitt Folk, og hann vill straffa Jsrael.

3. Mitt Folk! Hvad hefe Eg giort þier, og hvar med hefe Eg angrad þig? Seg Mier þad!

4. Eg færde þig þo af Egypta-Lande, og frelsade þig af þvi Þrældoms Huse, og sende Mosen, Aaron, og Mariam undann þier.

5. Mitt Folk! Þeink Þu þar uppa, hvad Balach, Kongurenn af Moab, hafde j Sinne, og hvoriu Balaam, Peors Son, svarade honum, fra Sittim og allt til Gilgal, a þessu skylldud þier merkia, Hvorsu DROTTinn hefur giort ydur allt gott.

6. Hvar med skal eg nu (a) blijdka DROTtinn? Med Hniekropningu fyrer þeim Hæsta Gude? Eda skal eg blijdka hann med Brenne-Foornum, og Vetur-gomlum Kalfum?

(a) (Blijdka) Gud lætur ecke sig blijdka og sætta med Offre og Giørningum, enn þo ad nøckur villde offra sijnum Syne, Helldur ef ad Menn vottast hann, og trua hønum, og etc.

7. Ætlar þu ad DROTTinn hafe Þocknan a morgum Þusundum Hruta, eda Vidsmiore, þo þar være otelianlegar Aar fullar af? Eda skal Eg giefa Minn Frumgietenn Son, fyrer mijna Misgiørninga, Eda Avoxt mijns Lijfs fyrer Synder minnar Saalar?

8. Þu Manneskia! Þad er þier sagt, hvad Gott er, og hvad DROTTinn heimter ad þier, sem er, ad (b) hallda Guds Ord, og fremia Kiærleika, og vera lijtellaatur fyrer Þijnum Gude.

(b) (Hallda) In Ebr. Facere judicium, Ad hallda Guds Ord er ad Trua, Elska og Lijda.

II. 9. Rodd DROTtins skal hroopa yfer Stadenn, Enn hvor sem ottast Þitt Nafn, honum skal ganga vel. Heyred þier Kinkvijsler hvad þar predikast!

10. Enn

10. Enn lijka sem eadur blijfur O-riettfer-dugt Gots j Husum O-gudhræddra, og Sa haturlege litle Epha.

11. Eda skyllde Eg samþyckia þa rongu Meta-Skoal, edur falska Vigt j Seckiunum?

12. Med hvoriu þeir Rijkis-Menn giora mikenn Oriett, og þeirra Innbyggiarar fara med Lygar, og hafa falskar Tungur j sijnum Healsium.

Iis. 13. Þar fyrer vil Eg nu taka til ad plaga þig, og eydeleggia þig, fyrer þinna Synda Skulld.

14. Þu skallt ecke hafa noog ad eta, og þu skallt vanmegnast. Og til þess sem þu næer, þad skal þo ecke koma þadann, og hvad sem þadann kiemur, þad vil Eg þo af-henda Sverdenu.

15. Þu skallt soa, og ei upp skera, Þu skallt fergia Oleum, og ei smyria þig med þvi, þu skallt spreingia Vijnberenn, og ei drecka Vijned.

16. Þviad Menn hallda (c) Sid Amri, og oll Verk Achabs Huss, og filgia þeirra Raadum. Þvi vil Eg eydeleggia þig, og hennar Innbyggiara, so Menn skulu blijstra epter þeim, og þier skulud bera Vijsrle Mijns Folks.

(c) (Sid) Þad er, Guds Þionustugiord.

## VII. Capitule.

Micheas rædur Þeim Truudu (I) ad taka sier Vara fyrer Floaræde hinna Van-Truudu; og (II) ad Treysta GUde DROttne sier til Blessunar.

I. Avi! Mier geingur lijka sem þeim Manne sem seirne Leit Berianna hefur j Vijn-Garde, þar Mann finnur ongva Vijn-Þrugu ad eta, og villde þo giarnann hafa funded hann besta Avoxt.

2. Þad Riettlaata Folked er j burt j þessu Lande, og þeir Riettvijsu er ecke meir a medal Folksins, Þeir umsitia aller Blood, Hvor rekur epter odrum, so hann meige fordiarfa hann.

3. * Og meina sig ad giora vel þar uti, nær þeir giora illa. Hvad Hofdingenn vill, þad seger Doomarenn, so ad hann giore honum eina Þienustu aptur. Þeir sem Magtena hafa raada epter sijnum eigenn Vilia, Skada ad giora, og snna þvi so sem þeir vilia.

*Joh. 16, 2.

4. Sa allra beste a medal þeirra er lijka sem Þyrner, og sa Ærlegaste er lijka sem Þyrnstell. Enn nær Dagur þinna Predikara mun koma, a hvorium þijn skal vitiad verda, þa skulu þeir ecke vita, hvad þeir skulu til giora.

5. Eingenn true sijnum Naunga, eingenn treyste a Hofdingiana. Vakta þu Dyr þijns Munns, fyrer þeirre sem sefur j þijnu Fange.

6. * Þvi Sonurenn foracktar Fodurenn, Doottirenn setur sig j moote Modurenne, Sonar-Konann a moote Modur sijns Mans, Og Mannsins Oviner er hans eiged Heima-Folk.

* Matth: 10, 21, 35, 36. Luc: 12, 53.

I. 7. Enn eg vil lijta til DROTTins, og bijda epter GUde mijns Hialpræded, Minn GUd mun heyra mig.

8. Gled þig ecke mijn Mootstedu-Kona, þo eg ligge þar fallenn, Eg mun koma upp aptur, Og þo eg sæte enn j Myrkre, þa er þo DROTTinn mitt Lioos.

9. Eg vil bera Reide DROttins, þvi eg hefe syndgast a moote honum, þar til hann dæmer mijna Sok, og skickar mier riett, hann mun leida mig til (a) Lioossens, so eg sioae mijna Lyst j hans Naad.

(a) (Lioossens) Þad er, Hann mun hugga mig.

10. Mijn Moostodu-Kona mun sioa þad, og standa med allre Skomm, hvor nu seger til mijn, Hvar er DROTTinn þinn GUd? Mijn Augu skulu þad sioa, ad hun skal nidur trodast a Strætenu so sem Saur.

11. Enn a þeim Tijma skulu þijner Murar uppbyggiast, og Guds Ord skal vijdt ut koma.

12. Og a þeim Tijma skulu þeir af Assur, og af stirkvum Stodum koma til þijn, þeir fra þeim sterkum Stodum, allt til Vatnsins, fra einu Hafenu til annars, fra einu Fiallenu til annars.

13. Þviad Landed skal verda j Eyde, fyrer Sokum sinna Innbyggiara, og sokum Avaxtar þeirra Verka.

14. Enn fæd Þu Þitt Folk med Þijnum Staf, Þinnar Arfleifdar Hiord, Su ad byr bæde alleina j Skogenum, og uppa Morkenne, Laat þa foodrast j Basan og Gilead, so sem j fordum Tijd.

15. Eg vil laata þa sia Furdanlega Hlute, lijka sem a þeim Tijma, þa þeir fooru ut af Egypta-Lande.

16. Ad Heidingiarner skulu þad sia, og aller þeirra enu Vollduga skulu skammast sijn, og leggia Hendur a sinn Munn, og hallda fyrer sijn Eyru.

17. Þeir skulu sleikia Dupt sem Hoggormar, og skriolfa sem Madkar j sijnum Holum, Þeir skulu vera hrædder fyrer DROTTne Vorum Gude, og ottast Þig.

18. Hvar er Sodann eirn Gud sem Þu ert? Hvor ed fyrergiefur Syndernar, og forlætur Misgiorningana, þeim sem epter eru af hans Arfleifd, Hann sem helldur ecke sinne Reide æfinnlega, þvi Hann er miskunsamur.

19. Hann mun miskuna oss aptur ad nyu, nidur troda vora Misgiorninga, og kasta ollum vorum Syndum j Hafsins Diup.

20. Þu munt hallda Þijna Tru vid Jacob, og vid Abraham Þijna Naad, so sem Þu hefur svared vorum Forfedrum fyrer langre Æfe.

Ender Prophetans Micheæ.



# Formaale yfer Prophetann Nahum.

Spaamadurenn Nahum spaaer ut af þeirre Foreydslu, sem þeir Assyrii veita skylldu Israels Folke, og Juda, og skiede af Salmanasser og Senacherib, vegna Folksins stoorra Synda. Þo so, ad þeir Goodu sem epter være, skylldu vid Magt halldast, so sem Ezechiam skiede, og hans Maka. Þar fyrer er so ad sia, so sem ad hafe þesse Nahum vered fyrer Esaiam, edur um þad Bil.

Þar næst seger hann fyrer Foreyding þess Kongs-Rijkes j Assyria, sierdeilis Borgarennar Ninive, hvor ad adur, a Dogum Jonas, var miog from, Enn nu þar epter var ordenn aptur full Raanglætis, og miog plaagade þa Herteknu af Israel. So þad eirnenn Tobias seger þeirra Hreckvijse fyrer endelega Fordiorfun, og seger, ad þeirra Illska mun giora vid þa eirn Enda. So huggar nu Nahum, epter þui sem hans Nafn er, þvi Nahum helter Consolator, a Norrænu Huggare, af þvi hann huggar Guds Lyd, hvornenn ad þeirra Fiand-Menn, þeir j Assyria, skulu j stadenn afmaader verda.

J Nidurlage hins 1 Cap: talar hann eins og Es: 52, 7. af þeim goodu Predikurum, sem Fridenn og Hiaalpræded boda, uppa Fiollunum, Og bydur Juda ad fagna. Og Þo ad þad saina kunne underst aded ad verda, af Ezechie Dogum, epter Senacherib, þa Juda var frelst og leyst fyrer Senacherib Konge, Þa er þetta þo eirnenn eirn almennelegur Spaadoomur uppa Christum, Ad j Juda skule vera Sa Gode Bodskapur, og Su Fagra Guds Þionusta skule þar kiennd og stadfest verda, hvar fyrer hann er og kallast med Riette Nahum.

# Prophetenn Nahum.

## I. Capitule.

Nahum (I) utmaalar Eydeleggingu Ninivitanna; Og (II) aminner Israels Folk til Fagnadar.

I. Þetta er Su Byrdenn yfer Ninive, og Su Spaadooms Book Nahum af Elkos.

2. DROTTinn er eirn Vandlætande Gud, og eirn Hegnare, Jaa, eirn Hegnare er DROttinn og reidur, DROttinn er hefnande a sijnum Mootstodu-Monnum, og Hañ sem ei mun gleyma þvi a sijnum Ovinum.

3. DROTTinn er þolenmoodur, og miog

miøg kreptugur, fyrer hvorium ad eingenn er saklaus, Hann er DROttinn, hvors Veiger eru j (a) Vinde og Storme, og under hans Footum þickt Dupt.

(a) (Vinde) So sem j Hafenu Rauda.

4. Sa sem hastar a Sioenn, og giører hann þurrann, og uppþurkar øll Vøtn. Basan og Carmel vanmegnast, og allt þad sem blomgast a Fiallenu Libanon vanmegnast.

5. Fiøllenn skialfa fyrer Honum, og Hꜵlsarner (b) forganga, Jardrijked bifast fyrer Honum, þar ad auk Veralldar-Kringlann, og þeir aller sem bua þar a.

(b) Ebraice. Smelltast.

6. Hvør mꜵ standa fyrer Hans Reide? Eda hvør mꜵ blijfa fyrer Hans Grimmd? Hans Reide brennur sem Elldur, og Biørgenn springa j sundur fyrer Honum.

7. DROttinn er Goodur, og eirn fastur Stadur j Tijma Neydarennar, Og Hann þecker þa sem treysta uppa hann.

8. Nær ed Floded yfergeingur, þa lætur Hann þad hafa Enda, Enn hann offæker sijna Ovine med Mirkre.

9. Hvad hugsed þier j moote DROTTNe? Hann mun þo giøra eirn Enda þar a, OlucKann mun ecke koma j Tvær Reisur.

10. Þviad lijka sem Þyrnar, þeir ed vaxa hvør j ødrum, og j bestu Vøkvan eru, verda brennder, lijka sem olldungis þurt Halm-Strꜵ,

11. So skal þad ganga þvi (c) Skalka-Roade, sem kiemur af þier, og þeinker Vondt a moote DROTTNe.

(c) (Skalka-Roade) Þad eru þau jllu Rꜵd og atsetningur Ninive, moote Juda Folke, til ad fordiarfa Þad, hlaut ad øngvu ad verda, þar hann trꜵtsade a moote þeim Hæsta, so sem skiede Senacherib, og Rabsache, fyrer Jerusalem.

12. So seger DROttinn, Kome þeir so bryniader og Mꜵttuger sem þeir vilia, þeir skulu þo um koll høggvast, og burt fara! Eg hefe audmykt þig, Enn Eg vil ecke audmykia þig aptur.

13. Þa vil Eg j sundur briota hans Ok, þad þu ber, og j sundur slijta þijn Bond.

14. Enn DROttinn hefur boded moote þier, ad af Sæde þijns Nafns skal eingenn framarmeir epter verda. Eg vil uppkippa þier af þijns Guds Huse, Eg vil giøra Afgudena, og Bilætenn, þier til eirnrar Grafar, þvi þu ert ordinn ad øngvu.

II. Cap: II. 15. Sioaed! * Uppa Fiøllonum koma Fætur eins gods Sende-Boda, sem predikar Fridenn, Þu Juda! Hallt þijna Helga Daga, og efndu þijn Heit, þvi Skalkurenn skal ecke framarmeir koma yfer þig, hann er med ollu afmꜵadur.

* Rom: 10, 15.

# II. Capitule.

Nahum seger fra Foreydslu Ninives.

Sunndurdreifarenn skal ferdast upp j moote þier, og setiast um Kastalana, Enn gaumgiæfdu Strætenn, Bu þig þad allrabesta, og efl Stirk þad mesta þu kannt.

2. Þviad DROttinn skal bitala Jacobs Drambseme, so sem Jsraels Drambseme, Þvi Lestrar-Mennerner munu lesa þa upp, og fordiarfa þeirra Vijnkvistu.

3. Hans sterkra Skyllder eru rauder, hans Strijds-Menn eru sem Purpure, hans Vagnar leiptra sem Elldur, þa hann vill høggva til samans, Þeirra Spiot bifast.

4. Vagnarner glamra a Gøtunum, og hrickta a Strætunum, þeir lysa sem Blys, og fara til samans sem Elldingar.

5. Enn hann mun þeinkia a sijna (a) Magtar-Menn, Þo skulu þeir sømu falla, hvørt sem þeir snua sier, og þeir munu flyta sier til Murveggianna og til Vijges, þar þeir meige ugglauser vera.

(a) (Magtar-Menn) Þad er, Kongurenn af Ninive mun treysta uppa sitt Strijds-Folk.

6. Enn Portenn hiꜵ Vatnenu skulu þo verda upplꜵatenn, og Høllenn skal forganga.

7. Drottningenn skal hertekenn j burt flytiast, og hennar Jungfrur skulu andvarpa sem Dufur, og beria a sijn Briost.
8. Þviad Niniue er lijka sem Dammur, fullur af Vatne, Enn þad skal burt renna. Standed vid! Standed vid! (Munu þeir kalla) Enn þar skal eingenn snua sier aptur.
9. So ræned nu Silfre, ræned Gulle, þvi hier er Ogrynne liggiande Fioar, og Mergd allra handa kostulegra Dyrgripa.
10. Enn nu hlytur hun med ollu upp ad lesast, og ruplast, so hennar Hiarta skal bleydast, Knien skelfast, allar Lendar bifast, og oll Andlit bleikt utsioa sem Pottur.
11. Hvar er nu Leonanna Heimeled, og Hagar þeirra ungu Leonanna? Þar sem Leoned og Leoninnann geingu med þvi unga Leonenu, og eingenn þorde ad reka þau burt.
12. Helldur rænte Leoned noog fyrer sijna Unga, og drap nidur handa sinne Leoninnu, Hann uppfyllte sijnar Holur med Herfang, og sijn Inne med þad sem hann hafde j sundur rifed.
13. Sioa þu! Eg vil til vid þig, seger DROTTenn Zebaoth, og uppkveikia þijna Vagna j Reik, og Sverded skal eta þijn ungu Leon, og Eg vil giora Enda a þijnu Raane a Jordu, so Menn skulu ecke heyra Raust þinna (b) Sende-Boda hiedan af.

(b) (Sende-Boda) Þienara, Bifalnings-Manna, og Magtar-Manna.

## III. Capitule.

Nahum (I) seger Orsok til Niniues Fyreydslu; Og (II) Stadfester sijn Ord med Epterdæme af No.

I. Vei þeim Manndrapa Stad, hvor full er af (a) Lygum og Raane, og vill ecke laata af sijnum Raanskap!

(a) (Lygum) Þad er, Afguda-Dijrdkan, hvoria hann kallar og so Tofra og Hooruskap.

2. Þvi þar skulu Menn heyra Svipurnar hlioma, og Hiolenn hrickta, Hestana hneggia, og Vagnana glamra.
3. Hann fører Riddarana upp, med skijgdum Sverdum, og skijnande Spiotum. Þar liggia marger jhel slegner, og mikell Fiolde Lijkama, so eingenn gietur taled þa, og Menn hliota ad detta um Lijkamana.
4. Þad skier alltsaman fyrer þann stoora Hooruskap þeirrar fogru Dægelegu Hooru, hvor ed Fiolkinge hefur med Hond, og Heidingiana hefur med sijnum Hoordome, enn Lond og Lyde med sijnum Golldrum utvegad.
5. Sioa þu! Eg vil þier j mot, seger DROTTinn Zebaoth, Eg vil uppfletta Klæda Fallde þijnum, under þitt Anglit, og Eg vil syna Heidingium þitt Klædleyse, og syna þijna Smaan Konga-Rijkiunum.
6. Eg vil giora þig miog hrædelega, og skamma þig, og giora þig ad eirne (b) Hrædu.

(b) Eda ad Skarne.

7. So ad aller þeir sem þad sioa, skulu flya fyrer þier, og segia so, Niniue er foreydd! Hvor vill samharma med henne? Og hvar skal Eg leita þier ad Huggara?
II. 8. Meinar þu, ad þu siert betre enn sa (c) Stiornara-Stadurenn No, sa ed laa hioa Vatnenu, og hafde Vatned allt um kring, hvors Murar og Festingar ad Sioenn var.

(c) Edur Næringarsamur.

9. Mor-Land, og Egypta-Land voru hennar otelianleg Magt, Put og Lybia voru þijn Hioalp.
10. Hann vard þo utflæmdur, og vard fangenn ad ryma burt, og hans Born voru jhel sleigenn a ollum Strætum, og Menn kostudu Hlute um hans þa Edla-bornu, og aller hans Magtar-Menn voru bundner Hleckium, og setter j Fiotur.
11. So hlytur þu og ad verda druckenn, og fela þig, og leita þier ad fostum Stad fyrer Ovinum.
12. Aller þijner sterku Stader eru sem Fijkiu-Trie, med fullvoxnum Fijkium, nær Mann hrister þaug, þa falla þær þeim j Munn sem þær vill eta.

13 Sioa!

13. Sioa! Þitt Folk skal verda ad (d) Konum j þier, og Portenn þijns Lands skulu upploataſt fyrer þijnum Ovinum, og Elldurenn skal eyda þijnum Grindum.

(d) (Konum) Þad er, Hrædder, og fuller af Kvijda, so sem j Barns-fædingu.

14. Upp-aus þier Vatn! þvi þu skallt verda umkringd, Bættu um þinn Kastala, Far j Leirenn, hnoda Leirenn, og giør sterka Tigul-Steina!

15. Enn Elldurenn skal upp-eta þig, og Sverded skal jhel sloa þig, þad skal upp-eta þig lijka sem Koal-Ormur, Þad skal yfersalla þig sem Koal-Ormur, Þad skal yfersalla þig sem Eingespretttur.

16. Þu hefur fleyre Kaup-Menn enn Stiornur eru a Himnum, Enn nu skulu þeir utbreida sig sem Koal-Ormar, og fliuga j burt.

17. Þijner (e) Herrar eru so marger sem Eingesprettur, og þijner Hofuds-Menn sem Koal-Ormar, sem liggia hioa Gordunum, a þeim kallda Deigenum, Enn þegar Soolenn upp kiemur, þa hafa þeir sig burt þadann, so Mann veit ecke hvad af þeim verdur.

(e) (Herrar) Nazareni þeirra Prestar.

18. Þijner Hirdarar munu sofa, O þu Kongur af Assur! Þijner Magtar-Menn munu leggia sig, og þitt Folk mun j sundur dreifast a Fiollunum, og eingenn mun safna þeim saman.

19. Eingenn skal (f) harma þinn Skada, eige helldur hriggiast vegna þinnar Ploagu, Helldur aller þeir sem heyra soddann um þig, skulu saman klappa sijnum Hondum yfer þier, Þvi yfer hvorn er ecke þijn Illska j Sijfellu geinginn?

(f) (Harma) Eda binda um Þijn Soar, þijn Ploaga er jnntekenn af Veikleika.

Ender Prophetans Nahum.

# Formaale yfer Prophetann Habacuk.

Þesse Habacuk er eirn Huggunar Prophete, sa ed Folked skyllde styrkia, og hallda þvi vid, so þad hefde ecke Efaseme a Christi Tilkomu, hvorsu undarlega sem a horfdest, vid þetta leggur hann alla Alud, þad hann hallde þeim fast vid Truna uppa þann fyrerheitna Christum, og predikar so.

Þad er ad vijsu satt, ad fyrer saker þeirra Synda, þa hlytur Landed af Kongenum af Babylon foreydt ad verda, þo samt skule Christus og hans Rijke ecke ad sijdur koma, Helldur þa skule og eirnenn sa Foreydarenn Babylons Kongur, ecke hafa hier ut af stoort Glæsu-Laun, hann skule og lijka so forglatast. Þviad Guds Verk og Art sie so, ad Hann hialpe þegar aliggur, og þaus Hialp kome i riettann Tiima. Og so sem hann seger j sijnum Psalme. Hann minnest a Miskunsemena, þa Hriggdenn er þar, Og sem Maals-Hætturenn hlioodar, Þa er Bootenn nærst, Boled geingur hærst.

Alijka og eirnen sem þad vier hlioodum ad hallda þeim Christnu vid med Guds Orde, til þins Sijdarsta Dags. Þo ad so synest, ad Christus miøg dvelie, og vilie ecke koma, So sem sialfur Hann seger, þad hann mune koma þa Menn sem minnst varer, Nær ed þeir Biggia, Planta, Kaupa, Selia, Eta, Drecka, Giptast, Kvongast, etc. So ad nockrer, þo ei sie aller, kunne sier vid Truna ad hallda, þvi hier gioreſt Þorf og Naudsyn, ad Menn hafe Truna, og Predikunar Embætted, so sem vier siaum fyrer Augunum Daglega.

Af øllu þessu maa vel merkia, ad þesse Habacuk hefur vered fyrer þa Babylons Herleiding, kann vera samtijdis Jeremia, Og er hægt ad skilia, hvad hann vill, og hvor hans Meining er.

Enn þar sumar Bækur hallda af þessum Habacuk, ad hann hafe fært Mat Daniel Spamanne j Babylon, fra Gydinga-Lande, þad er af øngrum Sannleiks Rokum. Þad samhlyder og ei Tijmanum, þviad so miked sem Spaadom Habacuks ahrærer, þa er hann elldre enn Jeremias, hvor ed lifde framm yfer Foreyd slu Jerusalem, Enn Habacuk spaer ut af

 þeirre

þeirre sømu Forevdslu, enn Daniel var epter Jeremiam, og hafde leinge lifad, adur enn þad hann var j Leona Grøfena kastadur.

Habacuk hefur riett Nafn epter sijnu Embætte, þviad Habacuk utlegst Fadmande, sa sem eirn annann j Fadm tekur, og upp ad sier fadmar. So gjører hann med sijnum Spaadome, Hann tekur sitt Folk j Fang sier, og fadmar þad upp ad sier, þad er ad skilia, Hann huggar þad og helldur þvi vid, so sem þa nockur tekur eitt Featækt æpande Barn, edur annann Mann sier j Fadm, so hann skule þagna, og vera til Frids, þvi þad skule med Guds Hialp betur verda.

# Prophetenn Habacuk.

## I. Capitule.

Habacuk talar (I) um Ogudlegt Athæfe Gydinga og þeirra Straff þeßvegna, sem Chaldæi veittu þeim, (II) Hverra Magt og Vellde er utmaalad.

I. ÞEtta er su Byrdenn, sem Habacuk Prophete hefur sied.

2. DROttinn! Hversu leinge skal eg hroopa, enn Þu villt ecke heyra? Hversu leinge skal eg hroopa til Þijn, um þad Ofrijke, og Þu villt ecke hiaalpa?

3. Þvi lætur þu mig sioa Mædu og Erfide? Þvi vijsar þu mier Roan og Ranginde j kringum mig? Magtenn geingur yfer Riettenn!

4. Þeß vegna geingur þad miøg ødruvijs til, enn so sem riett er, og eckert riett Maal kann ad hafa Sigur, þviad sa Ogudhrædde svijkur hann Riettlaata, þvi ganga Domarner ranger.

5. Sioaed a (a) medal Heidingianna, *Sioaed og undred ydur! Þvi Eg vil giora nockud a ydrum Tijma, hvoriu þier skulud ecke trua, þa Menn segia þar af.

* Giorn: B: Post: 13,41.

(a) (Medal Heidingianna) Þesse Ord hefur S. Paall med Hønd j Giørninga Bookarennar 13 Cap: ødruvijs enn Prophetenn giører hier, so sem hann er og annarstadar vanur ad giora.

6. Þvi sioaed! Eg vil uppvekia þa Chaldeos, Eitt beiskt og snarlegt Folk, hvørt ad ferdast skal so vijdt sem Landed er, ad inntaka þau Heimele sem ecke eru þeirra.

7. Og þeir skulu vera Ognarleger og Hrædeleger, þeir ed skulu bioda og þvinga sem þeir vilia.

8. Þeirra Hestar eru fliotare enn Pardus, so eru þeir Grimmare enn Ulfar ad Kvollde. Þeirra Riddarar ferdast hingad j stoorum Hoopum af Fiarlægd, sem fliuge þeir, lijka sem Orn til eins Hræs.

9. Þeir koma allersaman hingad til þeß ad þeir giøre Skada. Þeir briotast j giegnum hvørt þeir vilia, sem eitt Austan Vedur, og þeir skulu safna þeim Herteknu til samans sem Sande.

10. Þeir skulu hæda Kongana, og hlægia ad Høfdingiunum, allar sterkar Borger skulu vera þeim eitt Gaman, þvi þeir skulu giora Vorn, og þo vinna þær.

11. Þa skulu þeir taka nyann Mood til sijn, þeir skulu aaframm fara og syndgast, So hlytur þeirra Sigur ad heyra þeirra Gude til.

II. 12. Enn Þu Herra Minn Gud! Minn Heilagur! Þu sem ert af Eylijfre Tijd! Laat oß ecke deya, helldur laat þa DROTTinn! vera ad eins vort Straff, O Þu Vor Stirkur! Laat þa ad eins typta oß.

13. Þijn Augu eru hrein, so Þu kannt ei ad sioa þad Vonda, og Þu getur ei sied Eymdena. Hvar fyrer sier þu þa til þeirra Forsmaanara, og þeiger, þad sa hinn Ogudlege uppsvelger þann sem fromare er enn hann?

14. Og þu lætur Mennena ganga sem Fiska j Sionum, so sem Orma þeir øngvann Herra hafa.

15. Þeir draga þad allt saman med Krookum,

kum, og veida þad med sijnum Vodum, og safna þvi saman med sijnum Netum. Af þessu glediast þeir, og eru kaater.

16. Þar fyrer offra þeir sijnum Veidarfærum, og giora Reykelse fyrer sijnum Netum, þviad þeirra Partur er ordenn feitur af þvi sama, og þeirra Matur so mikell.

17. Þar fyrer varpa þeir sijnu Nete alltijd ut, og vilia ecke afloata ad drepa Folked.

## II. Capitule.

DRottinn bydur Habacuk ad skrifa þa Vitran, ad þeir Chaldæi ættu ad eydeleggiast.

Hier stend eg a mijnu Vardhallde, og geing uppa minne Festingu, og skoda, og sie til, hvad mier sagt verdur, og hvoriu eg skal svara þeim sem mig straffar.

2. DROTTinn svarade mier, og sagde, Skrifadu þessa Syn, og moala þu hana a eitt Spialld, so þeir kunne ad lesa hana sem þar framm hioa hlaupa (sem er a þennann Hoatt.)

3. Spoadomurenn mun vissulega enn uppfyllast a sijnum Tijma, og skal endelega koma j Lios, og ecke (a) verda ute, Og þo hann dvelie, þa bijded hans, * Þvi hann skal vissulega koma, og ecke tefia. * Hebr: 10, 37.

(a) (Verda ute) Edur bregdast.

4. Sioa! Sa sem er Hardsvijradur, hann skal ongva Roo hafa j sijnu Hiarta, * þvi Sa Riettloate lifer af Tru sinne. * Rom. 1, 17. Gal: 3, 11. Ebr: 10, 38.

## III. Capitule.

Habacuk seger froa, ad Gud DRottinn vilie forbiarga og Eydeleggia þa Chaldæos, fyrer Saker þeirra Storkostlegu Synda.

1. Enn (a) Vijned prettar Drambsamann Mann, so ad hann kann ecke ad standast, Hvor sijna Ønd uppsperrer sem Helvijte, og er fliotur sem Daudenn, sa ei kann sediast, helldur safnar øllum Heidingium til sijn, og safnar øllu Folke ad sier.

(a) Ebr: Enn sannarlega Vijned svijkur. Eirn Drambsamur Madur kann ecke stadfastur ad vera j sijnu Heimele.

2. Enn hvad gillder? Þad aller þeir enu somu skulu giora eirn Moals-Hoatt um hann, og eina Rædu med Ords-Kvidum, og segia, Vei þeim sem sitt Gots auka med annars Audæfum! Og hvorsu leinge skal þad vara? Og hledur a sig miklum Saur.

3. O! Hvorsu skyndelega skulu þeir uppvekiast, sem bijta skulu þig, og uppvakna, sem þier skulu j burt hrinda, og þu skallt verda þeim til Hlutskiptis!

4. Þvi þu hefur rænt marga Heidingia, so skulu þeir nu ræna þig aptur, aller þeir sem epter eru af Folkenu, fyrer sokum Manna Bloods, og fyrer þad Ofrijke sem þu giorder j Landenu og Stadnum, og a øllum þeim þar jnne bua.

5. Vei þeim sem hann er Agiarn til Olucku sijns Huss! Til þess ad hann meige leggia sitt Hreidur j Hædenne, so hann meige komast undann Oluckunne.

6. Enn þijn Roadagiord skal verda til Skammar þijnu Huse, þvi þu hefur deydt ofmargt Folk, og hefur syndgast med allshoattadre (b) Þverud.

(b) Ebraice. Frijvilia.

7. Þvi Steinarner j Murnum skulu og hropa, og Bitarner undar Sperrunum skulu svara þeim.

8. Vei þeim sem uppbygger Stadenn med Blood, og tilbyr Borgena med Oriett!

9. Er þad ecke so, ad þad mun skie af DROttne Zebaoth? Hvad Folked hefur fyrer þig unned, þad skal uppbrennast med Elldе, og þad a hvoriu Folked þreytest, þad hlytur ad verda tapad.

10. Þvi Jordenn skal verda full af (c) Vidurkienningu Dijrdar DROTTins, so sem Vatn, þad sem hylur Sioenn.

(c) (Vidurkienningu) Ut ipsa experientia palam fiat Gloria Domini; passive.

11. Vei þier sem skeinker a fyrer þinn Moanga,

ga, og blandar þinne Grimmd þar med, og giörer hann druckenn, so þu meiger sioa hans Smaan.

12. Menn skulu og metta þig med Skömm fyrer Heidur. So dreck þu nu eirnenn, so þu detter um koll, Þinn Kaleikur j Hægre Hende DROTTens skal umkringia þig, og þu skallt skammarliga spya, j Stadenn þinnar Vegsemdar.

13. Þvi sa Yfergangur sem þu framder vid Libanon, hann skal falla yfer þig, og þau nidursleigenn Dyrenn skulu hræda þig, fyrer Sokum Bloods Mannanna, og þess Ofbellдis sem framed er j Landenu og Stadnum, og vid alla þa sem þar jnne bua.

14. Hvad skal þa þad Bijlæted hiaalpa, sem Meistarenn hefur giort, og þad falska steypta Lijkneske, a hvort Meistarenn forliet sig, ad hann giorde þad Maallausa Skurgod.

15. Vei þeim sem seger til Triesins, Vakna upp! og til Maallausra Steina, standed upp! Hvornenn skylldе þad læra? Sioa! Þad er med Gulle og Silfre yferdreiged, og eingenn Ande er j þvi.

16. Enn DROTTinn er j sijnu Heilaga Mustere, Öll Verolldenn skal vera kirr fyrer Honum.

## IV. Capitule.

Habacuk bidur til Guds, ad hann vilie frelsa Gydingana af þvi Babylonisка Fangelse.

Þetta er Bæn Habacuks Propheta (a) fyrer þeim Saklausu.

(a) Qvidam, Al mooteVillum.

2. DROTTinn! Eg hefe heyrt Þitt Rikte, so eg otteft. DROTTinn! Þu giörer Þijna Giörninga lifande midt j Aarunum, og a (b) midiu Aarenu lætur Þu kunngiora þad, þa Hriggdenn er þar, þa minnest þu a Miskunsemdena.

(b) (A Midiu aarenu) Þad er j riettann Tijma, og j midtium Mootgange hiaalpar Þu, og giorer Þijna hialpна, og frelsar þa.

3. Gud kom af Sudre, og Sa Heilage af Fiallenu Pharan, Sela! Himenenn var fullur af hans Lofe, og Jordenn var full af hans Dijrd.

4. Hans Skin var sem Lioos, (c) Geislar geingu af hans Hondum, þar var hans Magt leynelega.

(c) (Geislar) Ebr. Cornu: ut de Mose.

5. Undann Honum gieck Drepsott, Og Plaagann gieck ut þar sem hann foor framm.

6. Hann stood og mællte Landed, Hann leit til og tvijstrade Heidingiunum, So ad Veralldar Fiollenn urdu j sundur lamenn, og Hædernar j Heimenum maattu lækka sig, þa hann gieck j Verolldenne.

7. Eg sa (d) Hreysenn þeirra Blaalendinga j Mædu, og Tiolld þeirra Madianita hriggdarfull.

(d) Ebraice. Cusans.

8. DROTTinn! Vartstu ecke Reidur j Flodenu? Og Þijn Grimmd j Vatnenu, og Þijn Reide j Sionum? Þa Þu reidst a Þijnum Hestum, og Þijner Vagnar hofdu Sigurenn?

9. Þu droost framm Bogann, so sem þu hafder svared Ættunum. Sela! Og skipter Straumunum j Landed.

10. Fiollenn saau Þig og hræddust, Vatns-Straumurenn rann burt, Diuped liet heyra sig, Hædernar hoofu upp Hendurnar.

11. Soolenn og Tungled stoodu kirr, Þijnar Þijlur flugu burt med Leiptran, og Þijn Spiot med Skine af Leiptran.

12. Þu nidurtradst Landed j Reide, og j sundur þrekter Heidingiana j Grimmd.

13. Þu foorst ut ad hiaalpa Þijnu Folke, ad hiaalpa Þijnum Smurda, Þu j sundur sloost Hofuded, j Huse þeirra Ogudlegu, og giorder nakenn Grund-Vollenn allt upp ad Haalse, Sela!

14. Formælltu Rijkes-Sprota þess Hofudsins, med hans Þorpum, hvorier ed koma sem einn Stormur, mier j sundur ad dreifa,

dreifa, Og gledia sig, lijka sem þad þeir ætu
þann Fraatæka med Leynd.
15. Þijner Hestar fara j Sionum, j Bley-
tu mikellra Vatns-Falla.
16. Af þvi eg soddann heyre, þa er minn
Bukur hriggur, mijnar Varer titra af þvi
Hroope, Rotnan geingur j mijn Bein, eg er
hriggur med mier sialfum, O! Ad eg mæt-
te hafa Hvijld a þeim Hormungar Tijma, þa
vier reisum upp a moote þvi Folke, sem moote
oss strijder!
17. Þvi Fijkiu-Tried skal ecke grænkast,
og þar skal eingenn Avoxtur vera a Vijn-
Vidnum, Arvide vantar Vidsmiors Tried,
og Akrarner bera ongva Næring, Og Sau-
derner verda ur Fiaar-Husunum gripner, og
eingenn Uxe mun vera j Nauta-Husunum.
18. Enn eg vil gledia mig j DROTTne,
og fagna j GUde Mijnum Heilsu-Giafara.
19. Þviad DROttinn DROttinn er
minn Kraptur, og hann mun giora mijnar
Fætur sem Hiartar Fætur, og hann mun
færa mig j Hædena, so eg synge a
mitt Hliodfære.

Ending Prophetans Habacuk.

# Formaale yfer Prophetann Zophoniam.

Spaamadurenn Zophonias hefur vered under eins og Jeremias Spaamadur, Þviad hann hefur spaad j Kongs Josias Tijd, eins og Jeremias, so sem Upphafed hans Spaadoms avijsar. Þar fyrer er hans Spaadomur eins og Jeremiæ, sem er, ad Jerusalem og Juda skule foreydast, og Folked skule j burt flytiast, vegna sijns Idranarlausa vonda Lijfernes.

Enn hann nefner ei Babylons Kong, hvør ed þetta skal giora, so sem Jeremias, helldur seger hann þad sliett einfalldlega framm, ad GUD vilie slijka Plaagu og Olucku laata yfer þa koma, uppa þad hann giæte so komed þeim til ad giora Idran og Yferboot. Þvi alldrei einusinne gat nockur af Prophetunum, so um talad fyrer þessu Folke, ad Þeir villdu þvi trua, ad GUD være þeim reidur, Þeir stærdu og hroosudu sier jafnann þar af, ad þeir være og hiete Guds Folk. Og hvor þann hann predikade þeim þad, ad GUD være reidur þeim, hann hlaut ad vera Fals-Predikare, og ad missa Lijfed, Þviad þeir villdu ei trua, ad GUD munde yfergiefa so sitt Folk. Eins aalijka sem nu a vorum Dogum til geingur, ad aller þeir sem kienna, ad Kyrkiann fare villt, og Syndge, og ad GUD mune hana straffa, þeir enu sonn eru halldner fyrer Villu-Menn, og eru Lijfe svipter.

Hann seger og ecke Juda fyrer alleinasta þessa Olucku, helldur ollum umliggiande Londum, og þeirra Naagronnum, sem er, Philisteis, Moab, Ieoo, eirnenn Blaalande og Assur, Þviad Babylons Kongur skyllde vera Guds Refsingar-Hrijs, yfer ollum þessum Londum.

J Þridia Cap: fyrerspaer hann yfermaata vel og hid liosasta, ut af þvi gledelega Hiaalpar-Rijke Christi, hvort um Allann Heimenn skyllde utbreidast. Og þo hann sie eirn lijtell Spaamadur, þa talar hann þo meir ut af Christo enn marger adrer stærre Spaamenn, og nær þvi framar enn Jeremias, Hvar med hann huggar Folked aptur rijkuglega, So ad þeir skylldu ecke j þeirre Babylonisku Herleidingu, og sinne Oglæfu, hafa Efasemd a Gude, so sem hefde Hann med ollu burt kastad þeim, Helldur ad þeir skyldu vera Orfader j þvi, ad epter slijka Hyrting, þa mundu þeir koma aptur til Naadarennar, og vissulega faa og
odlast þann Fyrerheitna Frelsarann
Christum, og hans Dijrdar-
samlega Rijke.

# Prophetenn Zophonias.

## I. Capitule.

Zophonias bodar (I) Almuganum; (II) Konungenum og þeim Hellstu; (III) Kaup-Monnum i Landenu stoort Straff og Olucku: (IV) og Guds Reide-Dege.

I. ÞEtta er þad Ord DROttins, sem skiede til Zophonias, Chusi Sonar, Gedalia Sonar, Amaria Sonar,

Sonar, Ezechie Sonar, j Tijd Josiæ, Amons Sonar, sem var Kongur Juda.

2. Eg vil taka alla Hlute j burt af Landenu, seger DROTTinn,

3. Eg vil j burt taka bæde Menn og Fienad, Bæde Fuglana under Himnenum, og Fiskana j Sionum, med þeim Hneixlonum, og þeim Ogudlegu, Ja, Eg vil uppræta Mennena af Landenu, seger DROTTinn.

4. Eg vil utrietta Mijna Hond yfer Juda, og yfer alla þa sem bua j Jerusalem, So vil Eg uppræta þad sem epter er af Baal, þar med Nafned (a) Camarim, og Prestanna Nofn, af þessum Stad.

(a) (Camarim) Þad er, Þeir Pottust fyrer einfolldum Prestum, og Malchom var Ammons Barna Afgud.

5. Og þa sem uppa Þekium tilbidia Himensins Her. Þeir sem tilbidia þad, og sveria þo vid DROTTinn, og under eins vid Malchom.

6. Og þa sem falla fra DROTTne, og þa sem ecke hyrda um DROTTinn, og ei akta hann.

7. Vered kirrer fyrer DROTTNE DROttne! Þvi DROttins Dagur er j Nænd, Þvi DROTTinn hefur tilreidt eitt Sloatrunar-Offur, og boded sijnum (b) Gestum þar til.

(b) (Gestum) Þeim Babylonisku, sem skylldu uppeta Jerusalem, af þvi þeir hielldu eina annarlega Vijsu, til ad þiona Gllde fyrer utan Mosen.

II. 8. Og a DROttins Sloatrunar Offurs Deige, vil Eg heimsækia Hofdingiana, og Kongsins Born, og alla þa sem ad bera Utlendskann (c) Klædnad.

(c) (Klædnad) Sem er j þeirra Guds Þionustugiord, so sem Messu-Klæde, Kor-Kaapur, og etc. Þvi þeir hafa skiptad fierlegar Skickaner, Offur, Klæde, Gude j Jerusalem til Strijds.

9. Og a þeim sama Tijma vil Eg heimsækia þa sem stockva yfer Þroskulldu, sem fylla sinna Herra Hus med Raane og Svikum.

10. A sama Tijma, seger DROTTinn, mun sig upphefia eitt hoatt Kall fra Fiska-Portenu, og eirn Groatur fra þvi odru Portenu, og ein mikel Eymd a Hædunum.

III. 11. Yled þier sem bued j (d) Mylnu Husunum! þvi allt Kaup-Manna Folked er j burtu, og þeir aller sem safna Peningum, eru uppræatter.

(d) (Mylnu Husum) Jerusalem sem nu olldungis þienar Mammon og Maganum, og var nu af Guds Huse ordenn ad Mylnu edur Steikara Huse, sem leitade einungis Tijmanlegs Gots, med sinne Guds Þionustu, so sem og skedur hiaa oss.

12. A sama Tijma vil Eg rannsaka Jerusalem med Skrid-Lioosum, og Eg vil heimsækia þad Folk sem liggur a sijnum (e) Dreggium, og seger j sijnu Hiarta, DROTTinn mun hvorke giora Vondt nie Gott.

(e) (Dreggium) Sitia ugglaust, so sem Vijn þad sem ecke er ut tappad, og giora Spott ad Spaamanna Hotunum.

13. Og þeirra Gots skal verda ad Herfange, og þeirra Hus j Eyde, Þeir skulu byggia Hus og ej bua j þeim, Þeir skulu planta Vijn-Garda, og eckert Vijn drecka af þeim.

IV. 14. Þviad Sa mikle Dagur DROTTens er j Nænd, hann er nærre og flyter sier miog. Þa Rifted kiemur um DROttens Dag, þa skulu þeir enu sterku beisklega hroopa.

15. Þvi Þesse Dagur er Dagur Grimmdarennar, Dagur Hormungar og Eymdar, Dagur Storms og Vindar, Dagur Mirkurs og Dimmu, Dagur Skija og Þoku.

16. Dagur Basunanna og Trometanna, moot þeim sterkum Borgum og Hoasum Slotum.

17. * Eg vil giora Folked so hugsiukt, ad þeir skulu ganga j kring sem Blinder Menn, Af þvi þeir hafa syndgast j moote DROttne, Þeirra Blood skal uthellast lijka sem være þad Dupt, og þeirra Lijkamer, so sem þeir være Ohreinende. * Luc: 21, 25.

18. Þeirra Silfur og Gull skal ecke hialpa þeim, a þeim Reidennar Deige DROttens. Helldur allt Landed skal eydast fyrer Hans

Hans Vandlætingar Elld, Þvi hann skal
giøra eina fliota Ending a øllum þeim sem bua j
Landenu.

## II. Capitule.

Zophonias (I) aaminner Folked ad giøra Jdran; nema þad villde verda fyrer somu Olucku sem (II) Philistei; (III) Moabitar og Ammonitar; (IV) Morlendsker; Og (V) þeir Assyrisku.

I. Þu Haturlega Þiod, safnast samann, og
kom hingad!
2. Adur enn Doomurenn ut geingur, ad
þier fared j burt a Deige so sem Agner, Adur
enn su Grimmdar Reide DROttens kiemur
yfer ydur. Adur enn Sa Reidennar Dagur
DROTTens kiemur yfer ydur.
3. Þier aller Vesølu j Landenu, leited
DROttens, þier sem hallded hans Riett,
leited Riettlætesins, leited Audmyktarennar,
So ad þier mættud verda geymder a þeim
Reidennar Deige DROTTens!
II. 4. Þviad Gasa skal forlaatast, og Asca-
lon skal eydeleggiast, Asdod skal fordrijfast a
midium Deige, og Accaron skal upprætast.
5. Vei þeim sem þar bua nidur vid Sioenn,
þvi Strijds-Folkenu! DROTTens Ord
skal koma yfer ydur, Þu Canaan Philistea
Land, Eg vil fordiarfa þig, so eingenn skal
þar leingur bua!
6. Þar skal ecke vera nema Hirdara-Hrei-
se, og Sauda-Hus nidur vid Sioafar-
Sijduna.
7. Og þau somu skulu þeim epterblifnu af
Juda Huse verda ad Hlutskipte, so þeir skulu
þar fæda (þeirra Hiord.) Þeir skulu leggia sig
ad Kvellde j Ascalons Hus, nær ad DRottenn
þeirra Gud vitiar þeirra aptur, og snyr þeir-
ra Fangelse.
III. 8. Eg heyrde Moabs Brijxl-Yrde, og
Spottaner Ammons Barna, med hvorium
þeir svijvirdtu Mitt Folk, og hroosudu sier a
þeim somu Landamerkum.
9. Nu vel! So Sannarlega sem Eg life!
seger DROttenn Zebaoth Jsraels Gud,
Moab skal verda sem Sodoma, Og Ammons
Børn sem Gomorra, Jaa, sem einn Netlu-
Leggur, edur Sallt-Grof, og ein Eylijf
Audn. Þeir epterblifnu af Mijnu Folke sku-
lu ræna þa, og þeir epterblifnu af Mijnu Fol-
ke skulu erfa þa.
10. Þad skal þa skie fyrer þeirra Drambse-
mes Saker, fyrer þad ad þeir vanvirdtu þess
DRottens Zebaoths Folk, og hroosudu sier.
11 DROTTenn skal verda ognarlegur
yfer þeim, Þvi Hann skal (a) afmaa alla Gude
af Jørdunne, og allar Eyar a medal Heidin-
gianna skulu tilbidia hann hvor j sinn Stad.

(a) (Afmaa) Þad er sagt um Evangelium, hvørt ed koma skyllde, epter þa Babylonisku Herleidingu sem og skiede.

IV. 12. Og þier Blaa-Menn skulud jhel
slaast fyrer Mijnu Sverde.
V. 13. Og hann skal utrietta sijna Hønd yfer
Nordred, og fordiarfa Assur. Hann skal
giora Ninive eyde, þurra sem Eydemørk.
14. So allra-handa Dyr skulu bæla sig
þar jnne, a medal Heidingianna, og þar skulu
Hrossa-Gaukar og Þind-Svijn bua ofann a
þeirra Turnum, og syngia j þeirra Vind-Au-
gum, og (b) Hrafnar a Bitunum, Þviad
Cedrus-Fialernar skulu afbriotast.

(b) Ebr. Eydeleggingin skal vera uppa Dyra-Trienu.

15. Þad er sa gladvære Stadurenn sem
bio so athugalaus, og sagde j sijnu Hiarta, Eg
er, og eingenn annar! Hvørnenn er hann or-
denn so eyde? ad Dyr bua þar jnne, Og hvør
sem geingur þar framm hiaa, hann blijstrar
og klappar med Høndunum yfer hønum.

## III. Capitule.

Zophonias giører (I) Eina Logmaals; Og (II) Eina Evangeliska Predikun fyrer Jerusalems Juul vzgiurum.

I. Vei Þeirre Liotu Saurugu Vijkings-
legre (a) Borg!

(a) (Borg) Þad er, Jerusalem sialf, þvi þar sem Guds Ord er mest predikad, þar er Þad mest foragtad.

2. Hun vill ei hlyda, og ei helldur laata aga sig, Hun vill ecke treysta a DRottenn, eigi helldur hallda sier til sijns Guds.

3. Hennar Hofdingiar j henne eru greniande Leon, Og hennar Doomendur eru Ulfar um Kvølldenn, þeir ed eckert laata epter verda til Morguns.

4. Hennar Spaamenn eru Ostøduglyndir, og Forsmaanarar, Hennar Prestar vanheidra (b) Helgedoomenn, og (c) utleggia Løgmaaled ranglega.

(b) (Helgedoomenn) Þad er, Guds Ord sem er Heilagt.

(c) (Utleggia) Eins og Pavenn utleggur þad Ord. Matth: 16, 18. Þu ert Petrus.

5. Enn DROTTenn, sem er a millum þeirra, hann kienner riett, og giorer ecke neitt Illt, Hann lætur hvørn Morgun kienna sijn Riettinde openberlega, og hañ lætur ei af, Eñ þad vonda Folk vill ecke læra ad skammast sijn.

6. Þar fyrer vil Eg þetta Folk uppræta, þeirra Slot eyda, og þeirra Stræte toom giora, so ad eingenn skal ganga a þeim, þeirra Stader skulu eydeleggiast, so ad eingenn skal meir bua j þeim.

7. Eg liet segia þier, Þu skallt ottast Mig, og laata aga þig, so munde ecke þeirra Heimele upprætast, og eckert skal koma af þvi, med hvøriu Eg hugda hans ad vitia. Enn þeir eru kostgiæfner til ad fremia allra-handa Illsku.

8. Þar fyrer (seger DROttenn) skulud þier aptur a moot og so Mijn bijda, þar til ad Eg upprijs a sijnum Tijma, Þa Eg mun dæma, og Heidingiunum samannsafna, og Konga-Rijke j eitt færa, Minne Reide yfer þa hella, Jaa, allre Reide minnar Grimmdar, Þviad øll Veralldenn skal uppeydast fyrer Minn Vandlætingar Elld.

II. 9. Þa vil Eg odruvijs laata predika fyrer Folkenu, med Vinsamlegum (d) Vørum, So þeir skulu aakalla aller Nafn DROttens, og þiona Honum med Samþycke.

(d) (Vørum) Þad er Evangelium um Guds Naad, sem predikast skylldе j allre Verølldenne, hvørt ad frelsar oss af vorum Syndum. Ebr. Hreinum Vørum.

10. Menn skulu færa Mier hingad Mijna Tilbidiendur, til einnar Skeinkingar, sem eru þeir sundurdreifdu hinu meiginn Vatnsins, j Mor-Lande.

11. A þeim Tijma muntu ecke framarmeir skammast þijn vegna allra þinna Giorninga, med hvørium þu hefur yfertroded j moote Mier. Þviad Eg vil taka fra þier þa (e) Dramblaatu Heilaga, so þu skallt ecke meir upphefia þig fyrer Søkum Mijns Heilaga Fialls.

(e) (Dramblaatu) Sem hroosudu sier og treystu uppa Mustereſins Offur, uppa Forfedurnar, og onnur Helge-Verk. Rom. 9, 4. og ecke uppa Guds eintomis Naad.

12. *Eg vil laata eitt Faatækt lijtels-haattar Folk epterblijfa j þier, þeir skulu vona uppa Nafned DROttens. *Rom. 9, 29.

13. Þeir sem epterblijfa j Israel, munu vondt giora, edur Oriett tala, og þar skal ei finnast ein svikſom Tunga j þeirra Munne, helldur þa skulu þeir fædast og hvijlast aan alls Otta.

14. Gled þig Þu Zions Dotter! Kalla þu Israel, vert Glød og Fagna af øllu þijnu Hiarta, þu Jerusalems Dotter!

15. Þviad DROTTenn hefur burt teked þitt (f) Straff, og burtvendad þijnum Ovinum. DROttenn Israelis Kongur er hiaa þier, svo ad þu þarft ecke framarmeir ad ottast fyrer nockre Olucku.

(f) (Straff) Þad er, Hann vill ecke framarmeir vera reidur, helldur skal þad vera einungis Uppgiøf og Fyrergiefning, og Ovinena kallar hann Løgmaaled og Vonda Samvitsku.

16. A þeim sama Tijma skulu Menn segia til Jerusalem, Ottast þu ecke! og til Zion, Laat þijnar Hendur ecke letiast!

17. * Þviad DROTTenn þinn Gud er hiaa þier, eirn stirkur Frelsare, Hann skal gledia sig yfer þier, og vera þier vinsamlegur, og (g) fyrergiefa þier, og hann skal glediast yfer þier med hliomande Hliode.

Matth: 21, 5.

(g) (Fyrergiefa) Ecke straffa nie tilreikna Syndena, Helldur hylia og gleyma henne.

18. Eg vil koma þeim j burt, sem ad þreyngder voru med Setningum, so þeir kome fra þier, hvörier Setningar ad voru þeirra Byrde, hvar af þeir høfdu Vanvirdu.

19. Siaa þu! Eg vil giora eirn Enda a þeim øllum, a sama Tijma, sem þig plaagudu. Eg vil hiaalpa þeim Holltu, og samannsafna þeim Utreknu, og Eg vil giora þa til Lofs og Heidurs, j øllum Londum, j hvörium Menn forsmaadu þa.

20. A þeirre Tijd vil Eg innleida ydur, og samannsafna ydur a þeim Tijma. Þvi Eg vil giora ydur til Lofs og Heidurs, a medal alls Folks aa Jordunne, Þa Eg sny ydar Fangelse um fyrer ydrum Augum, seger DROttenn.

Ending Prophetans Zophoniæ.

## Formaale yfer Prophetann Haggeum.

Haggeus er sa Fyrste Prophete sem Folkenu var giefenn, epter þa Babylonisku Herleiding, Fyrer hvörs Spaadoom Mustered og Guds Þionustu-giord vard ad nyu uppreist og uppbirtud. Hvar til hönum vard og epter Tvo Maanude giefinn Zacharias til eins Fielaga. Uppa þad, ad fyrer Tveggia Vitna Munn skyllde Guds Orde þess helldur truad verda. Þviad Folked var miøg falled j Efasemd, ad Guds Mustere munde eige upp aptur biggt verda.

Og vier holldum, ad um þennann Propheta sie sagt Daniel: j 9. Cap: Þar hann seger, Fra þeim Tijma þa su Bifalning utgeingur þad Jerusalem skule upp aptur biggd verda, allt til Høfdingians Christum, eru 7 Vikur, og 62 Vikur, og etc. Þviad þo aadur fyrre være og so utgeingenn Kongs Cyrus Befalning, ad Mustered skyllde uppa hans (þad er Kongsins) Kostnad uppbiggiast, til Jerusalem, Þa var slijk Uppbigging forhindrud allt til Haggei og Sachariæ Tijdar, þa Guds Bifalning utgieck fyrer þeirra Spaadoom, þa fieck su Uppbigging Framngang.

Enn hann aavijtar Folked fyrer þad, ad þeir vanræktu Mustered og Guds Þionustu-giord upp ad reisa, enn høfdu alla aastundan a sijnu Gotse, og sijnum Husum. Og þar fyrer hafe þeir plaagader orded med dyrre Tijd, og Skadræde a Vijne, Korne, og øllum Avexte Jardar, Øllum O-gudlegum til eins Epterdæmis, sem Guds Ord og Hans Þionustu-giord ei akta, og draga jafnann sier j Siod og j sinn Seck. Slijka alla aahrærer þesse Texte, þar hann seger, Þeirra Siood ur skal verda j sundur.

So er ad finna j øllum Historium, Ef ad Menn vilia ecke fæda Guds Ords Þienara, og ecke til hiaalpa ad Guds Ord meige vid Magt halldast, þa lætur Gud þa draga saman, og verda Agiarna og audga sig. Enn Hann giörer ad sijdurstu Gøt a Sioodenn fyrer þeim, og blæs þar j, so þad hverfur og fyknr j burt sem Dupt, so eingenn veit hvad af verdur, Hann vill eta med þeim, ellegar skulu þeir ei faa Par ad eta, og etc.

Hann spaaer og um Christum j 2. Cap: ad Hann skule snart koma, og vera Huggun allra Heidingia, Þar med so sem heimuglegana avijsande, Ad Judanna Rijke og Løgmaal skyllde faa eirn Enda, Og ad øll Veralldar Kongarijke skule eydast, og Christo undergiefenn verda, hvad hier til Dags skied er, og skie mun jnn til hins Sijdarsta Dags, þa mun þetta allt saman upp fyllast.

## Prophetenn Haggeus.

### I. Capitule.

Gydingar uppbyggia Mustere DROttins epter Fyrersøgn Haggæi.

A þvi* ødru Aare Darii Kongs, j þeim Siøtta Maanude, a þeim Firsta Deige j Maanudenum, skiede Ord DROTTins fyrer Haggeum Propheta, til Soro Babels, Sealthiels Sonar, Høfdingia yfer Juda, og til Josua, Jozadaks Sonar, þess Ypparsta Kiennemanns, og sagde.

* Fyrer Hingad Burd Christi 451 Aar, 2 Darii Aar.

2. So seger DROTTinn Zebaoth, Þetta Folk seger, Tijmenn er ei enn komenn, ad Menn skule upp biggia Herrans Hus.

3. Og Ord DROttins skiede fyrer Haggeum Propheta.

4. Enn ydar Tijd er komenn, ad þier skulud bua j þilindum Husum, og Þetta Hus skal standa j Eyde.

5. Nu so seger DROTTinn Zebaoth, Sioæd, hvornenn ydur geingur.

6. Þier sœd miklu, og safned litlu, Þier eted, og verded þo ei metter, Þier drecked, og verded þo ei druckner, Þier klæded ydur, og verded þo ecke varmer, og hvor sem forþienar Peninga, sa leggur þa j eirn sundursliтenn Pung.

7. So seger DROttinn Zebaoth, Gaumgiæfed, Hvornenn þad geingur ydur!

8. Fared uppa Fialled, og sœked Videna, og bigged Hused, Þad skal vera Mier Þacknæmt, og Eg vil lꝍta sioa Mijna Dijrd, seger DROttinn.

9. Þvi þier voned vel mikels, og Sioꝍ! Þad verdur lijted, Og þo þier allareidu þad heimfærdud, þa (a) giore Eg þo þad ad Dupte, Hvernenn kiemur þad til? seger DROttinn Zebaoth, Af þvi ad Mitt Hus stendur so j Eyde, Og hvor flyter sier med sitt Hus.

(a) Ebr. Þa blæs Eg þo þar a.

10. Þar fyrer jnne helldur Himenenn Doggunne yfer ydur, og Jordenn sijnum Groda.

11. Og Eg hefe kallad Þurk, bæde yfer Landed og Fiollenn, yfer Korn, Vijn, Vidsmiør, og yfer allt þad sem kiemur af Jordunne, og so yfer Folk og Fie, og yfer allt Handanna Erfide.

12. Þa hlydde SoroBabel, Sealthiels Son, og Josua, Jozadaks Son, Sa Hofud-Prestur, og aller þeir sem epter voru ordner af Folkenu, þvilijkre DROTTins þeirra Guds Roddu, og Ordum Haggei Propheta, lijka sem DROTTinn þeirra Gud hafde utsendt hann, og Folked Ottadest fyrer DROttne.

13. Þa sagde Haggeus, DROTTens (b) Eingell, sem hafde Bodskap DROttins til Folksins, Eg er med ydur! seger DRottinn.

(b) (Eingell) Þad er, Sendebode, edur Predikare.

14. Og DROTTinn uppvakte Anda SoroBabels, Sealthiels Sonar, Hofdingians Juda, og Anda Josua, Jozadaks Sonar, Presta-Hofdingians, og so Anda þess alls epterblifna Folks, so ad þad kom og arvidade uppa Hus DROTTins Zebaoths þeirra Guds.

## II. Capitule.

Haggæus talar (I) um þa miklu Dijrd þess Annars Musteres; so og (II) um nockur Umskipte fra Bølvan til Blessunar.

I. A þeim Fiorda og Tuttugasta Deige j þeim Siotta Mꝍnade, a odru Aare Darii Kongs.

2. A þann Firsta og Tuttugasta Dag j þeim Siounda Mꝍnude, þa skiede Ord DROTTins fyrer Haggeum Propheta, og sagde.

3. Segdu til SoroBabels, Sealthiels Sonar, Juda Hofdingia, og til Josua Jozadaks Sonar, Kienne-Manna Høfdingia, og til þess epterblifna Folks, og seig.

4. Hvor er epterblifenn a medal ydar, sem sꝍa þetta Hus j sinne fyrre Dijrd? Og Hvornenn sioæd þier þad nu? Er þad ecke so, ad þad þyker ydur einskis verdt vera?

5. Og nu SoroBabel! Vertu Hughraustur, seger DROTTinn, Vert oruggur þu Josua, Jozadaks Son, þu Presta Hofdinge, Vered Hughrauster, allt Folk j Landenu, seger DROTTinn, og erfided, þvi Eg er med ydur, seger DROttinn Zebaoth!

6. Epter þvi Orde þa Eg giorde eirn Sꝍattmꝍala vid ydur, þa þier foorud af Egyptalande, þa skal Minn Ande blijfa a medal ydar, Ottest ecke!

7. Þviad so seger DROttinn Zebaoth, *Þar er nu eirn lijtell Tijme til, ad Eg vil hræra Himen og Jord, Sioenn og Þurrlended.

* Hebr. 12, 26.

8. Joa,

8. Ioa, Eg vil hræra alla Heidingiana, þa ſkal (a) Huggun allra Heidingia koma. Og Eg vil giora þetta Hus fullt af Dijrd, ſeger DROttinn Zebaoth.

(a) (Huggun) Þad er, Chriſtur ſem hugga ſkyllde alla Veralldu, med Syndanna Fyrergiefningu.

9. Hvad bæde Silfur og Gull er Mitt, ſeger DROTTinn Zebaoth.

II. 10. Þeſſa Sijdarſta Huſſens Dijrd ſkal vera ſtærre enn hins Fyrra var, ſeger DROttinn Zebaoth. Og Eg vil giefa (b) Frid j þeſſum Stad, ſeger DRottinn Zebaoth.

(b) (Frid) Lucku og Velferd.

11. A þeim Fiorda og Tuttugaſta Deige, þeſs Nijunda Moanadar, a þvi odru Aare Darii, ſkiede Ord DROttins til Haggeum Propheta, og ſagde.

12. So ſeger DROttinn Zebaoth, Spyr Preſtana um Logmaaled, og ſegdu.

13. Ef nockur ber (c) Heilagt Kiot j Skaute ſijns Kyrtels, og aahrærde ſijdann med ſama Skaute, Braud, Koal, Vijn, Oleum, eda hvad fyrer Mat þad være, Verdur þad þa og heilagt? Og Preſtarner ſvorudu og ſogdu, Nei.

(c) (Heilagt Kiot) Þad er, Þad Heilaga helgar ecke þad O-heilaga, enn þad O-heilaga ſaurgar þad Heilaga.

14. Haggeus ſagde, Enn ef nockur Ohreinn, af þvi hann heſur ſnorted eitt Hræ, og ef hann ſnerter ſijdann eitt af þeſſu, Verdur þad þa og Ohreint? Preſtarner ſvorudu og ſogdu, Þad verdur Ohreint.

15. Þa ſvarade Haggeus, og ſagde, Lijka ſo er og þeſſe Lydur, og þeſſer Menn fyrer Mier, ſeger DROttinn, og allur Giorningur þeirra Handa, og þad þeir offra, er Ohreint.

16. Og ſiaed nu! Hvornenn þad heſur geinged ydur, fra þeſſum Deige, og aadur til forna, fyrr enn nockur Steirn var lagdur uppa annann j Muſtere DRottins.

17. Ad þegar nockur kom til Korn-Hrugunnar, ſa ſem haſa ſkyllde Tuttugu Mælera, þa urdu þar varla Tiju, Kiæme hann til Vijn-Preſſunnar, og ætlade ad fylla Fimmtijger Amur, þa urdu varla Tuttugu.

18. Þvi Eg ploagade ydur med Þurck, Brenndu Korne, og Hagle, j ollu ydar Erfide, Enn þo lijka vel ſnerud þier ydur ecke til Mijn, ſeger DROttinn.

19. Þvi giefed Giætur ad, fra þeſſum Deige, og til forna, ſem er fra þeim Fiorda og Tuttugaſta Deige, a þeim Nijunda Moanude, allt til þeſs Dags, ſem lagdeſt Grundvollur a Muſtere DROttins, Lyted þar a!

20. Þvi Sæded liggur enn nu j Hlodunne, og þad ber enn nu ecke Avoxt, hvorke Vijn-Tried, Fijkiu-Tried, Granata-Tried, og ei helldur Oliu-Tried, Enn fra þeſſum Deige vil Eg giefa Bleſſan.

21. Og Ord DROttins ſkiede j annad Sinn til Haggeum, a þann Fiorda og Tuttugaſta Dag j Moanudenum, og ſagde.

22. Segdu til SoroBabels, Hoſdingians j Juda, og ſegdu, Eg vil hræra Himen og Jord.

23. Og (d) umvellta Stoolum Kongarijkianna, og eydeleggia þau Megtugu Konga-Rijke Heidingianna. Og Eg vil bæde Vognum og þeirra Riddurum umbillta, ſo bæde Heſtar og Menn ſkulu nidur falla, hvor fyrer annars Sverde.

(d) (Umvellta) Þa ur Perſia ſem þier otteſt, þeim vil Eg fyrerkoma, þad ſkiede af Alexandro Magno.

24. A ſama Tijma ſeger DROTTinn Zebaoth, vil Eg taka þig SoroBabel, Sealthiels Son, Minn Þienara, ſeger DROttinn, Og Eg vil hallda þier ſem einum Signets-Hring, þvi Eg heſe utvaled þig, ſeger DROTTinn Zebaoth.

Ending Prophetans Haggei.

# Formæle yfer Prophetann Sachariam.

Þesse Prophete hefur vered epter þa Babylonisku Herleiding, Og hefur æsamt med sijnum Lags-Manne Haggeo, til hiælpad aptur upp ad biggia Jerusalem, og Mustered, og þvi sundur-tvijstrada Folke, til samans aptur ad koma, So ad Rijkes-Stiornenn, og ein god Skickan kiæmest a aptur j Landenn. Og ad sønnu þa er hann eirn ut af þeim Huggunarsamlegustu Prophetum, þviad hann frammsetur margar liufar og huggunarsamar Sioner, og giefur mørg sæt og vinsamleg Ord, til ad hugga og styrkia þad Sorgfulla og sundur-tvijstrada Folk, til ad uppbiria Biggingena, og Rijkes-Stiornena, ad nyu, sem allt þangad til høfdu miked og marghættad Motkast lided. Þetta giører hann allt til hins Fimmta Capitula.

J þeim Fimmta Cap: spæer hann under Syn eins Briefs og Mæle-Asks, um þa Fals-kiennendur, sem þar epteræ mundu uppkoma a medal Gydinga Folks, sem Christum yrde afneitande, hvør Syn enn nu þennann Dag yfer Gydingum stendur.

J þeim Siøtta spæer hann ut af Evangelio Christi, og þvi Andlega Mustere, sem um allann Heimenn skyllde uppbiggiast, First þad Gydingarner afneitudu hønum, og villdu ecke hafa hann.

J Siøunda og ættunda hefst ein Spurning, til hvørrar Spæmadurenn giefur Andsvar, Huggar og æminner þa enn j annad Sinn, ad uppbiggia og uppbiria sijna Vallds-Stiorn, og endar þar med þann Spædoom a sijnum Døgum um þa Uppbiggingu.

J Nijunda talar hann um þann epter komanda Tijma, og spæer fyrer j Firstu, j hinum Tijunda Capitula, Hvørsu Alexander hinn Mikle, skule yfer vinna Tyrum, Zidon, og þa Philisteos, uppa þad ad øll Verølldenn skule opnast fyrer þvi Tilkomande Christi Evangelio, og seger, ad Sa Sanne Konungurenn Christus skule koma j Jerusalem rijdande a eirne Øsnu.

J Ellefta spæer hann, ad Christus mune af Gydingum selldur verda fyrer Þriatijger Silfur Peninga, Þar fyrer mune Hann og yfer giefa þa, so ad Jerusalem skal foreydast um sijder, og Gydingar forherdast j Villunne, og verda sundur dreifdir. Og ad Evangelium og Rijked Christi skule so koma ut a medal Heidenna Þiooda, epter Christi Pijnu. Fyrer hvøria hann skyllde First verda sleigenn, so sem eirn Hirder, og Postularner so sem Sauder sundur tvijstrast, Þvi ad Hann hlaut First ad lijda, og so jnn ad ganga j sijna Dijrd.

J Sijdarsta Cap: Þa Hann hefur foreydt Jerusalem, þa burt tekur Hann þad Levitiska Prests Embætted, med Hætijdis Døgum, og øllum þeim Hlutum sem þvi til heyrdu, og seger ad øll andleg Embætte mune almenneleg verda, Gllde til Þionustu, enn heyra nu ecke alleinasta til Levi Slekte, Þad er, Þar skule koma Adrer Kienne-Menn, Adrar Hætijder, Adrar Forner, Ønnur Guds Þionusta, hvøria Adrar Kinkvijsler kunne eirnenn ad fremia, Jæ eirnenn Egyptsker, og aller Heidingiar, þad er ad skilia, Þad Gamla Testamented er klart med øllu af lagt og burt teked.

# Prophetenn Sacharias.

## I. Capitule.

Sacharias (I) bydur Gydingum ad yfergiefa þann vonda Veg sinna Fedra, og seger fra sinne (II) Firstu, (III) Annare, og (IV) Þridiu Syn.

I. A Attunda Mænude þess* Annars
ærs Darij Kongs, skiede Ord
DROTTins til Sachariam,
Sonar Barachia, Sonar Jddo, þess
Propheta, og sagde.

* Fyrer Hingad Burdenn Christi 451 Aar.

2. DROTTJNN var hardla Reidur a
ydar Forfedur.
3. Og segdu til þeirra! So seger DROTTinn Zebaoth, Snued ydur til Mijn! Seger
DROTTinn Zebaoth, So vil Eg snua Mier
til ydar, seger DROTTinn Zebaoth.
4. Vered ei sem ydar Forfedur, hverium
þeir fyrre Prophetar prediktudu, og sogdu,
So seger DROTTinn Zebaoth, Snued
ydur fra ydar vondum Vegum, og fra ydrum
vondum Giorningum! Enn þeir hlyddu ei,
og sinntu ecke um Mig, seger DROTTinn.
5. Hvar eru nu ydar Fedur og Spæmenn?
Lifa þeir enn nu?
6. Er þad ecke so, ad Mijn Ord, og
Minn Riettur, sem Eg baud fyrer Mijna

Þienara Prophetana, hefur þad ecke komed
yfer ydar Forfedur? So ad þeir hefdu maatt
snua sier, og sagt, Lijka so sem DROT-
TINN Zebaoth hafde j Sinne ad giora
oss, so sem vier geingum og giordum, Lijka
so hefur hann og giort oss.
II. 7. A þeim Fiorda og Tuttugasta Deige,
j þeim Ellefta Maanude, sem er Sebat Maa-
nudur, a þvi odru Aare Darij Kongs, skie-
de Ord DROttins til Sachariam Barachie
Sonar, Iddo Sonar, Prophetans, og
sagde,
III. 8. Eg saa um Nottina, og siaa þu!
Eirn Madur sat uppa einum Raudum Heste,
hann stood vid a medal Myrru Triaanna, a
nockru Einge, og a Bake honum voru rauder,
bruner, og hvijter Hestar.
9. Og eg sagde, Minn Herra! Hvorier
eru þesser? Og Eingellenn, sa sem talade vid
mig, sagde til Mijn, Eg vil vijsa þier, hvo-
rier þesser eru.
10. Og saa Madur sem stood vid under
Myrru-Trienu a Eingenu, svarade og sagde.
Þesser eru þeir sem DROTTenn hefur ut-
sendt ad reisa j giegnum Landed.
11. Enn þeir svorudu Eingle DROT-
Tens, sem stood vid under Myrru-Triaanum,
Og sogdu, Vier hofum reist j giegnum Lan-
ded, Og siaa þu! Ad oll Londenn sitia kirr.
12. Þa svarade Eingell DROTTins,
og sagde, DROTTenn Zebaoth! Hvorsu
leinge villtu ecke miskunna Þig yfer Jerusalem,
og yfer Borgernar Juda, hvorium Þu hefur
vered reidur j þesse Siotiju Aar?
13. Og DROTTinn svarade Einglenum,
sem talade vid mig vinsamlegum Ordum, og
huggunarsamlegum Ordum.
14. Og Eingellenn, saa sem talade vid mig,
sagde til mijn, Predika þu og segdu, So seger
DROTTenn Zebaoth, Eg hefe miog Vand-
lætt yfer Jerusalem og Zion.
15. Enn Eg er miog reidur yfer þa dramb-
laatu Heidingia, Þvi Eg var lijtt reidur,
enn þeir hiaalpudu til ad fordiarfa.
16. Þar fyrer seger DROttenn so, Eg
vil snua Mier aptur til Jerusalem med Mi-
skunseind, og Mitt Hus skal uppbiggiast þar
inne, seger DROttenn Zebaoth, Þar til skal
og sa Mæle-Þraadur utgreidast j Jerusalem.
17. Og predika enn framar, og seg þu!
So seger DROTTinn Zebaoth, Þad skal
ganga mijnum Stodum vel aptur, og
DROTTenn skal hugga Sion aptur, og
utvelia Jerusalem aptur.
18. Og eg upplypte mijnum Augum, og saa,
og siaa þu! Þar voru Fiogur Horn.
19. Og eg sagde til Eingelsins, sem talade
vid mig, Hvorier eru Þesser? Hann sagde
til mijn, Þad eru þau Horn, sem sundur twijs-
trad hafa Juda, aasamt med Israel og Je-
rusalem.
IV. 20. Og DROTTenn vijsade mier Fiora
Smide.
21. Þa sagde eg, Hvad vilia þesser giora?
Hann sagde, Þesser eru komner til ad afbriota
þau Horn, sem ad sundurdreifdu Juda, so
eingenn kunne ad upplypta sijnu Hofde, so ad
þeir j burt steyte Heidingianna Horn, hvorier
upplyptu Hornenu yfer Juda Land, til ad
sundurdreifa þvi.

## II. Capitule.

Sacharias (I) seger fraa sinne Fiordu Syn; Og (II) seger Gydingunum i Babylon ad fara heim aptur til Jerusalem.

I. Og eg upplypte mijnum Augum, og
saa, og siaadu! Eirn Madur hafde
eirn Mæle-Þraad j Hendenne.
2. Og eg sagde, Hvort fer þu? Enn hann
sagde til mijn, Ad eg mæle Jerusalem, og siaae
til Hvorsu laung og vijd hun skal vera.
3. Og siaa þu! Ad Eingellenn sa ed vid
mig talade, gieck ut, Og eirn annar Eingell
gieck ut j moote honum.
4. Og sagde til hans, Skunda þu j burt,
og

og tala til þess Ung-Mennis, og segdu, Jerusalem skal setinn verda aan Murveggia, fyrer Søkum mikels Fiolda þeirra Manna, og Fienadar, sem þar jnne skal vera.

5. Og Eg vil vera eirn gloande Murveggur þar um kring, seger DRottenn, Og Eg vil vera þar jnne, og Eg vil audsyna Mig Dijrdarsamlegann þar jnne.

II. 6. Hei! Hei! Flyed af Nordur-Landenu, seger DROttenn, Pviad Eg adskilde ydur i Fiora Vinda under Himnenum, seger DROttenn.

7. Hei Zion! Pu sem byr hiaa Babylons Dotter, Fly þu!

8. Pvi so seger DROTTenn Zebaoth, Hann sende mig til Heldingianna, þeir sem ræntu ydur. Peirra Magt hefur eirn Enda, Hvør sem snerter ydur, hann snerter Hans Auga-Stein.

9. Pvi siaaed! Eg vil veyfa Minne Hende yfer þa, So þeir skulu verda þeim eitt Herfang, sem þeim þionad hafa, so þier skulud vita ad DROTTenn Zebaoth hefur sendt mig.

10. Gled þig, og fagna Pu Zions Dotter! Pviad siaa þu! Eg kiem, og vil bua hiaa þier, seger DROttenn.

11. Og a þeim Tijma skulu marger Heidingiar falla til DROttins, og skulu vera Mitt Folk, og Eg vil bua hiaa þier, so þu skallt merkia, ad Sa DRottinn Zebaoth sende mig til þijn.

12. Og DROTTinn skal erfa Juda j sitt Hlut-Skipte, j þvi Heilaga Lande, og Hann skal ut velia Jerusalem aptur.

13. Allt Hollð vere kirrt fyrer DRottne, þvi Hann hefur uppteked sig af sijnum Heilogum Stad.

# III. Capitule.

Sacharias seger fra þeirre Fiumtu Syn um Josua hinn Ypparsta Prest.

Og mier var syndur Sa Ypparste Prestur Josua, standande fyrer Engle DROttins. Og Satan stood hiaa hans hægre Hende, ad standa j moote honum.

2. Og DROttinn sagde til Satans, * DROTTinn straffe þig Satan! Jaa, DROTTinn straffe þig, Sa sem utvalde Jerusalem. Er þetta ecke eirn Brandur sem af Elldenum er utgripenn? * Jud: v. 9.

3. Og Josua var j O-hreinum Klædum, og stod fyrer Englenum,

4. Hvør ed svarade og sagde til þeirra sem stoodu framme fyrer honum, Taked þaug ohreinu Klæde fra honum. Og hann sagde til hans, Siaa! Eg hefe teked þijnar Synder fra þier, og j fært þig Hatijdar Klædum.

5. Og hann sagde, Setied eirn hreinann Hatt a hans Hofud. Og þeir settu eirn hreinann Hatt a hans Hofud, og færdu hann j Klæde, og Eingell DROttens stood þar.

6. Og Eingell DROttins vitnade fyrer Josua, og sagde.

7. So seger DROttenn Zebaoth, Ef þu geingur a Mijnum Vegum, og geymer Mijnar Vardveitingar, Pa skalltu stiorna Mijnu Huse, og geyma Mijna Forgarda, Og Eg vil giefa þier af þessum sem hier (a) standa, ad þeir skulu vijsa þier Veigenn.

(a) (Standa) Einglarner vakta og leida þa enu Godu, einkanlega Prestana og Kienne-Mennena.

8. Heyr til Josua! Pu ædste Kienne-Madur, þu og þijner Viner sem bua fyrer þier, þvi þeir eru ætijd undarleger. Pvi siaa þu! Ad eg vil laata Minn Pienara Zemah koma.

9. Pvi siaaed! A þeim eina Steine, sem Eg lagda fyrer Josua, skulu vera Sio Augu, Enn siaa! Eg vil uthoggva hann, seger DROttinn Zebaoth, og Eg vil burt taka þess sama Lands Synder a eirn Dag.

10. A þeim sama Tijma, seger DROttinn Zebaoth, skal hvør bioda odrum til Giests under Vijnvidar-Trie og Fijkiu-Trie.

## IV. Capitule.

Sacharias seger fra þeirre Siøttu Syn, sem var Liosa-Stika af Gulle

Og Eingellenn sä sem talade vid mig, kom aptur, og uppvakte mig, lijka sem þa nöckur er uppvakenn af Svefne.

2. Og sagde til mijn, Hvad sier þu? Eg sagde, eg sie, Og sia! Ad þar stood Ein Liosa-Stika øll af Gulle, og ein Skaal þar ofana, þar voru Sio Lampar ofana, og lijka Sio Treckter vid hvorn Lampa.

3. Og Tvo Vidsmiørs Trie þar hiaa, eitt a hægre Sijdu Skaalarinnar, og annad a vinstre Sijdu.

4. Og eg svarade og sagde til Eingelsins, sem talade vid mig, Minn Herra! Hvad er þad?

5. Og Eingellinn, sa sem talade vid mig, svarade og sagde til mijn, Veitstu ecke hvad þad er? Og eg sagde, Nei Minn Herra!

6. Og hann svarade og sagde til mijn, Þad er Ord DROttins um SoroBabel, þad skal hvorke skie med Magt nie Hernade, helldur fyrer Minn Anda, seger DROTTinn Zebaoth.

7. Hvad ertu, þu stoora Fiall! hvort þu vera skal eitt Slettlende fyrer Soro-Babel? Og hann skal uppfæra þann firsta Stein, so Menn skulu hropa, Gud giefe til Lucku! Gud giefe til Lucku!

8. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde.

9. SoroBabels Hendur løgdu Grundvøllenn þessa Hus, hans Hendur skulu og fullkomna þad, so þier skulud vita ad DRottinn hefur sendt mig til ydar.

10. Þvi hvor er sa sem foraktar þessa Litla Daga? a hvorium ad menn skulu þo gledia sig, og sia þann (a) Mæle-Þraad, j SoroBabels Hende, med þeim Sio, sem eru Augu DROTTens, hvor ad reisa j giegnum þad heila Land,

(a) (Mæle-Þraad) Bygginginn skylde Framingang hafa fyrer SoroBabel hvar og hvoruenn sem hann hana biriade, þo þad være øllum Heidingium j moote.

11. Og eg svarade og sagde til hans, Hvad eru þau Tvo Oliu-Trie, til Hægre og Vinstre Sijdu Liosa-Stikunnar?

12. Og eg svarade j annad Sinn, og sagde til hans, Hvad eru þær Tvær (b) Greiner þess Vidsmiørs Vidar-Tries, sem þar standa hiaa þeim Tveimur gylltum Liosa-Skiærum, med hvorium ad Menn taka Skorenn af þeim Gylltu Lompum.

(b) (Greiner) In Ebr. Duæ Spicæ

13. Og hann sagde til mijn, Veitstu ecke hvad þad er? Enn eg svarade, Nei, Minn Herra!

14. Og hann sagde, Þad eru þau Tvo Oliu-Vidar Børn, sem þar standa hiaa Stiornaranum alls Landsins.

## V. Capitule.

Sacharias seger (I) fra sinne Siøundu; (II) Attundu, og (III) Nijundu Sion.

1. Og eg upplypte Mijnum Augum enn einusinne, og saa, Og sia þu! Þar var eitt Fliuganda (a) Brief.

(a) (Brief) Þad eru þeir ed falsa Ritningena, hriggia good Hiertu, og hæla Vondum, og hræsna fyrer þeim.

2. Og hann sagde til Mijn, Hvad sier þu? Eg svarade, Eg sie eitt Fliuganda Brief, sem er Tuttugu Alna langt, og Tiju Alna breidt.

3. Og hann sagde til mijn, Þad er su Bølvan sem ut geingur yfer allt Landed, þvi aller Þiofar verda sagder Froomer epter þessu Briefe, og aller Meinsæris-Menn verda sagder Fromer epter þessu Briefe.

4. Enn Eg vil þad framm koma laata, seger DROTTenn Zebaoth, ad þad skal koma yfer Þiofsins Hus, og so lijka yfer þeirra Hus sem sveria falsklega vid Mitt Nafn, og

þad skal blijfa j þeirra Huse, og eyda þvi med þess Stockum og Steinum.

II. 5. Og Eingellenn, sem talade vid mig, gieck ut, og sagde til mijn, Upplyptu þijnum Augum, og sioa! Hvad geingur þar ut?

6. Og eg sagde, Hvad er þad? Og hann sagde, Eirn (b) Epha geingur ut, og hann sagde, Pad er þeirra Skickan j ollu þvi Lande.

(b) (Epha) Þetta er eirnenn sagt um Fals-Kiennendur, So sem Briefed eirnenn uppa þa hlydde, hvorier ed mæla Samvitskurnar med Løgum og Rictte, eins og med Mæle-Aske, enn um sijder hlioota þeir ad koma til Sinear.

7. Og sioa! þar barst framm eitt Centner Blij, og þar var ein Kvinna sem sat j Epha.

8. Og hann sagde, Þetta er Sa O-gudlege Lærdomur, og hann kastade henne midt j Epha, og varpade þeim Blij-Hnud ofana Holed.

III. 9. Og eg hoof upp mijn Augu, og sea, Og sioadu! Par geingu Tvær Konur ut, og hofdu Vænge, sem Vindurenn bar, og þad voru Vænger sem Storks Vænger, og þær færdu þad Epha a millum Jardar og Himens.

10. Og eg sagde til Eingelsins, sem talade vid mig, Hvort flytia þær þad Epha j burt hiedann?

11. Og hann sagde til mijn, Ad Honum uppbiggist eitt Hus, og tilreidist j Landenu Sinear, og setiest þar a sinn Grundvoll.

## VI. Capitule.

Sacharias seger (I) fra hinne Tijundu Sion; og (II) spaer um Christi Personu, Embætte og Rijke.

I. Og eg upplypte mijnum Augum enn einu sinne, og sea, Og sioadu! Par voru Fiorer Vagnar sem frammgeingu a millum Tveggia Fialla, enn þau sonu Fioll voru af Kopar.

2. Fyrer þeim Firsta Vagne voru Rauder Hestar, Enn fyrer þeim Odrum Vagne voru Bruner Hestar.

3. Fyrer þeim Pridia Vagne voru Hvijter Hestar, og fyrer þeim Fiorda Vagne voru (a) Skiotter Hestar Sterker.

(a) Ebr. Dropa-Gráer edur Hagl-Græer.

4. Og eg svarade og sagde til Eingelsins, sem talade vid mig, Minn Herra! Hvorier eru þesser?

5. Eingellenn svarade, og sagde til mijn, Þetta eru þeir Fiorer Vindar under Himnenum, sem koma framm, ad þeir skulu framm ganga fyrer allra Landa Stiornara.

6. Par sem þeir svortu Hestarner voru fyrer, þeir geingu j mote Nordre, Og þeir Hvijtu Hestar geingu epter þeim, Enn þeir Skiottu geingu j mot Sudre.

7. Þeir sterku utgeingu og drou um kring, so þeir fære j giegnum oll Lond. Og hann sagde, Fared j burtu, og Ferdest j giegnum Landed, Og þeir foru j giegnum Landed.

8. Og hann kallade a mig og talade til mijn og sagde, Sioadu! Þeir sem ferdast j mot Nordrenu, þeir koma mijnum Anda til ad hvijlast j Landenu mot Nordre.

9. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

10. Tak af þessum Herteknu, sem eru af Heldai, og af Tobia, og af Jedaia, og kom þu sama Dag, og gack þu inn j Josia, Zophonie Sonar, Hus, hvorier komner eru fra Babylon.

II. 11. Enn tak Silfur og Gull, og gior Koronur, og set þær uppa Hofud Josua, Jozadaks Sonar, þess Ypparsta Prests.

12. Og segdu til hans, So seger DRottenn Zebaoth, Sioadu! Par er eirn Mann sem heiter (b) Zemah, þvi under Honum skal þad vaxa, og hann skal biggia Mustere DROTTins.

(b) Zemah, Norrænest Grodur, og er Spaadomur ut af Christo, hvor ed merkest fyrer Josuam og SoroBabel.

13. Joa, Mustere DROttins skal Hann biggia, og bera Prydena, og hann skal sitia og drottna a sijnum Stoole, hann skal og vera Prestur a sijnum Stoole, og þar skal vera Fridur a millum þeirra beggia.

14. Og þessar Koronur skulu tilheyra þeim Helem, Tobia, Jedaia, og Hen, Zophonias syne, til eirnrar Minningar j Mustere DROttins.

15. Og þeir skulu af Fiarlægd koma, sem biggia Mustere DROTTins, þa skulu þeir vid kannast, ad DROTTenn Gud Zebaoth hefur sendt mig til ydar. Og þad skal skie, ef þier vilied hlijda Rodd DROttins ydvars Guds.

## VII. Capitule.

Sannur Guds Otte er (I) Ecke Innefalenn j Hræsnes Fostu; (II) Helldur er hann Innefalenn j Rettlæte og Miskunseme vid Naungann.

I. Og þad skiede a Þvi Fiorda Darii Kongs Aare, ad Ord DROttins skiede til Sachariam, a þeim Fiorda Deige þess Niiunda Moanadar, sem kallast Chisleu.

2. Þa Sarezer og Regem, Melech og þeirra Folk, voru sender til Bethel, ad tilbidia fyrer DROtténe.

3. Ad segia til Prestanna sem voru j kringum Hus DROttins Zebaoth, og til Spoamannanna, Skal Eg enn nu groata a þeim Fimta Moanude, og enn (a) hallda mier fra, so sem Eg hefe giort nu j Nockur Aar?

(a) (Hallda) Eins og þeir Nazarei.

4. Og Ord DROttins Zebaoths skiede til mijn, og sagde.

5. Tala þu til alls Folksins j Landenu, og til Prestanna, og segdu, Þa þier Fostudud og grietud, j þeim Fimta, og j þeim Siounda Moanude, um þesse Siotije Aar, Hafed þier þa jafnnann fastad fyrer Mig?

6. Eda þa þier oatud og Druckud, hafed þier þa ecke Eted og Drucked fyrer ydur sioalfa?

7. Er þetta ecke þad, sem DROTTinn liet predika fyrer þa frammfornu Propheta, þa Jerusalem var al-setenn med Folke, og hafde alls Nægter, med sijnum Stodum þar um kring, og þann Tijd ad þar bio Folk, bæde j moote Sudre, og so j Dolunum.

II. 8. Og Ord DROTTins skiede til Sachariam, og sagde,

9. So seger Sa DROTTinn Zebaoth, Dæmed riett, giered gott, og vered miskunsamer, hver sijnum Brodur.

10. Og giored hvorke Eckium, Fodurleysingium, Utlendskum, edur Foatækum, nockurn Oriett, og eingenn skal hugsa nockud Vondt sijnum Brodur j sijnu Hiarta!

11. Enn þeir villdu ei adgiæta, og sneru Bakenu vid Mier, og stoppudu aptur sijn Eyru, so þeir skylldu ecke heyra.

12. Og giordu sijn Hiortu sem einn Adamas, ad þeir skylldu ecke heyra Logmoaled, og Ordenn, hvor DROTTenn Zebaoth sende j sijnum Anda, fyrer þa fyrre Prophetana. Hvar af so stoor Reide DROTTins Zebaoths er komenn.

13. Og þad er so skied sem þad var predikad, og þeir heyrdu ecke, So villde Eg og ecke heyra, þa þeir kolludu, seger DROTTinn Zebaoth.

14. So hef Eg j sundurtvijstrad þeim a medal allra Heidingia, þeirra sem ecke þecktu þa, og Landed vard eyde epter þa, so ad eingenn ferdadest, edur bioo þar inne, og þad Gøsuga Land giordest ad Audn.

## VIII. Capitule.

Sacharias talar (I) um Sanna Guds Þecking hia Gydingum; Og (II) hia Heidingium.

I. Og Ord DROTTins skiede til mijn, og sagde,

2. So seger DROTTinn Zebaoth! Eg hefe vered mieg Vandloatur vid Zion, og Eg hefe

hefe med stoorre Reide vered Vandlæatur vid hana.

3. So seger DROTTinn, Eg sny Mier aptur til Zion, og vil bua j Jerusalem, so Jerusalem skal kallast Sannleiksins Stadur, og þess DROTTins Zebaoths Fiall, eitt Fiall Helgedomsins.

4. So seger DROTTinn Zebaoth, Par skulu enn nu hier epter bua j Jerusalems Strætum, Gamler Menn og Kvinnur, og þeir sem ganga vid Staf, af stoorre Elle,

5. Og Stræte Stadarens skulu vera full af Pilltum og Stulkum, sem sier skulu leika a hennar Strætum.

6. So seger DROTTinn Zebaoth, Pyke þeim soddann vera omøgulegt, fyrer Augum þessa epterblifna Folks j þessare Tijd, Skyllde þad þar fyrer vera Omøgulegt fyrer Minum Augum? Seger DROTTinn Zebaoth.

7. So seger DROTTinn Zebaoth, Sioadu! Eg vil frelsa Mitt Folk fra þvi Lande j moote Austre, og fra þvi Lande j moote Solarennar Nidurgange.

8. Og Eg vil færa þad ut hingad, ad þad skal bua j Jerusalem. Og þeir skulu vera Mitt Folk, og Eg vil vera þeirra GUD, j Sannleika og Riettlæte.

9. So seger DROTTinn Zebaoth, Styrked ydar Hendur, Pier sem heyred þesse Ord, a þessare Tijd, fyrer Munn Spaamannanna, a þeim Deige sem Grund-Vollurenn er lagdur a Huse DROTTins Zebaoth, ad Mustered verde upp biggt.

10. Pviad fyrer þessa Daga var Erfide Manna Forgiefens, og Dyranna Arfide til Einskis, og þeir hofdu ongvann Frid, fyrer Hormung, sem ut og inn geingu, Helldur liet Eg alla Menn fara, hvorn j moot sijnum Naunga.

11. Enn nu vil Eg ecke giora vid þetta epterblifna Folk, so sem a þeim fyrre Døgum, seger DROTTinn Zebaoth.

12. Helldur skulu þeir vera Fridgrens Sæde. Vijn-Tried skal giefa sinn Avoxt, og Landed giefa sinn Grooda, og Himenenn skal giefa sijna Dogg, og Eg vil lcata þa sem epter eru ordner af þessu Folke, allt þetta eignast.

13. Og þad skal skie, ad lijka sem Pier af Juda Huse, og af Israels Huse, vorud ein Bølvan a medal Heidingianna, So vil Eg frelsa ydur, ad Pier skulud vera ein Blessan, Ottest ecke, og styrked ydar Hendur!

14. So seger DROTTinn Zebaoth, Lijka sem Eg þeinkte ad plaaga ydur, þa ydar Fedur reittu Mig til Reide, seger DROTTinn Zebaoth, og Mig oangrade þad ecke.

15. So hugsa Eg nu þar aptur a moot, ad giora vel til, a þessum Døgum, Jerusalem og Huse Juda, Ad eins oottest ecke!

16. Enn þetta er þad sem þier skulud giora, Hvor eirn tale Sannende vid Annann, Og dæmed riett, og setied Frid j ydrum Port-Dyrum.

17. Og eingenn þeinke nockud Vondt j sijnu Hiarta a moote sijnum Naunga, Og elsked ecke falska Eida, Pvi Eg hata allt soddann, seger DROTTinn!

18. Og Ord DROTTins Zebaoths skiede til mijn, og sagde,

19. So seger DROTTinn Zebaoth, Su Fasta, Fiorda, Fimmta, Siounda og Tijunda Maanadar, skal vera Juda Huse til Glede og Fagnadar, og til gladlegrar Aars-Haatijdar, Elsked ad eins Sannleika og Frid.

II. 20. So seger DRottinn Zebaoth, Par skal enn nu koma miked Folk, og margra Stada Borgar-Menn.

21. Og Borgar-Menn eirnrar Borgar skulu fara til þeirra annarar, og segia, Laatum oss fara og tilbidia fyrer DROTTne, og leita DROTTens Zebaoths, vier viljum fara med ydur.

22. So skal margt Folk og Heidingiar koma

ma j Hoopum samann, til ad leita DROttins Zebaoth j Jerusalem, ad tilbidia fyrer DROTTne.

23. So seger DROTTinn Zebaoth, A þeim Tijma skulu Tiju Menn, af allra handa Tungumaalum Heidingianna, grijpa j Stacks Skaut Eins þess sem er af Juda, og segia, Vier vilium fara med ydur, þvi vier heyrum, ad GUD er med ydur!

# IX. Capitule.

Sacharias talar (I) um Umvendun Heidingianna; Og (II) um Glede og Yude Gydinganna af Tilkomu Messiæ i Holldef.

I. Þetta er Su Byrdenn, af Hvorre DROTTinn sagde, yfer Landed Hadrach, og yfer Damascum, uppa hvort þad treyster (Þviad DRottinn lijtur yfer (a) Mennena, og yfer allar Jsraels Ætter.)

(a) (Mennena) GUD straffar bæde Gydinga og Heidingia, þegar þeir forskullda þad.

2. Og til Hamath, sem er j Naand henne, yfer Tyrum og Zidon, sem eru miøg Vijsar.

3. Þvi Tyrus uppbigger Kastala, og safnar Silfre sem Sande, og Gulle sem Saur a Strætum.

4. Enn sioa þu! DROTTinn skal fordiarfa hana, og sloa hennar Magt, þa sem hun hefur uppa Sionum, ad hun skal vera, so sem Su sem uppbrennd er med Ellde.

5. Nær Ascalon sier þad, þa skal hun oottast, og Gasa skal hafa mikla Angist, þar til skal Ekron hrigg verda, nær hun soddan sier Þvi þad mun verda ute um Kongenn af Gasa, og Menn munu ecki bua j Ascalon.

6. Utlendsker skulu bua j Asdod, Og Eg vil burt taka Drambseme þeirra Philistea.

7. Og Eg vil þeirra Blood taka fra þeirra Munne, og þeirra Svijvirdingar fra þeirra Tonnum, so þeir skulu og so epter blijfa til Handa vorum GUde, ad þeir verde sem Hofdingiar j Juda, og Ekron so sem Jebusitar.

8. Og Eg vil sialfur vera Herbuder j kringum Mitt Hus, so ad þar skal ecke Þorf gioorast ad (b) standa edur ganga framm edur aptur, so ad þeir Drijfararner skulu ecke fra-mar meir koma yfer þa, Þvi Eg hefe nu sied til þeirra med Mijnum Augum.

(b) (Standa) So sem giora Strijds-Menn, ganga og standa j Legrunum uppa sinne Vakt, Unde 1 Sam: 10. Statio Philistinorum, Psalm: 72, 3, 8.

II. 9. Enn Þu Dotturenn Zion! Gled þig miøg, og Þu Dotter Jerusalem! Fagna þu, * Sioa þu! Þinn Kongur kiemur til þijn, Riettlaatur, og eirn Hiaalpare, (c) Foatækur, og rijdur a eirnre Ósnu, og a einum ungum Ósnu-Fola.

* Matth: 21, 5. Joh: 12, 15.

(c) (Fatækur) Aumur.

10. Þviad Eg vil burt taka Vagnana fra Ephraim, og Hestana fra Jerusalem, og Strijds-Bogarner skulu j sundurbrotner verda. Þviad Hann skal kienna Frid a medal Heidingianna, og Hans Rijke skal vera fra einu Hafenu til annars, og fra Vatnenu jnn til Veralldarennar Enda.

11. Þu lætur eirnenn, fyrer Blood þijns Sattmaala, þijna Fangara ut af Gryfiunne, hvar eckert Vatn jnne er.

12. So snued ydur nu til hins stirkva Kastalans, þier sem j Vonenne ligged fangner! Þvi Eg vil (d) j Dag kunngiora þad, og bitala þier Tvofallt.

(d) (J Dag) Eirnenn j þetta Sinn, og a þessum Tijma, ecke alleinasta epterkomande.

13. Þviad Eg hefe uppspannad Mier Juda til eins Boga, og tilbued Ephraim, Og Eg vil uppvekia þijn Born Zion, yfer þijn Born Grick-Land, og Eg vil giora þig sem Sverd eins Risa!

14. Og DROTTinn mun opennberast yfer þeim, og hans Órvar munu utfara sem Elldingar, Og DROTTinn DROTTinn

skal bloasa j Basunurnar, og Hann skal framm ganga sem Stormur ur Sudre.

15. DROttinn Zebaoth skal vardveita þa, so ad þeir ete, og under sig varpe med Slaungu-Steine, ad þeir drecke og skvalldre, so sem af Vijne, og fuller verde sem Bikarar, og so sem Hyrning a Alltare.

16. Og DROTTinn þeirra GUd mun hiaalpa þeim a þeirre Tijd, so sem Hiordu sijns Folks, Þvi Helger Steinar (e) skulu upp reisast j hans Lande.

(e) Koronader Sto'par til Sigur-Merkis.

17. Þvi hvad hafa þeir gott framm yfer annad Folk, og hvad fegra enn adrer Menn? Korn (f) uppfæder unga Sveina og nytt Vijn Meyarnar.

(f) (Uppfæder) Evangelium er Soddan Ord sem ecke aflar Barna, Þeirra sem j Vøggunne liggia, helldur nær þeirra er aflad, þa eru þad unger Sveinar og Jungfrur, Heutugar til Ecktaskapar, þad er til ad kienna og afla annara andlegra Barna.

## X. Capitule.

Sacharias bydur Gydingum (I) ad medtaka Christum sier til Rettlætes; (II) So ad þeim veitest Heilagur Ande, til Helgunar.

I. Þar fyrer bidied nu um Kvølld-Regn af DROTTne, so mun DROTTinn giora Skij, og giefa ydur noga Dogg, til alls Grooda a Jordunne.

2. Þviad Afguderner tala ecke utann Hiegoma, og Sannsagnar-Mennerner sioa ecke utann Lygar, og segia Hiegoma Drauma, og þeirra Hugsvalaner eru eckert. Þvi fara þeir villt sem ein Hiord, og eru Magnlauser, af þvi þar er eingenn Hirder.

3. Mijn Reide er ordenn grimm yfer Hirdarana, og Eg vil vitia (a) Hafranna, þvi DROTTinn Zebaoth skal vitia sinnar Hiardar, sem er, Hussens Juda. Og Hann skal tilbua þa, so sem pryddann Hest til Bardaga.

(a) (Hafranna) Þad eru Prestar og Prophetar a medal Folksins, hvøria Christur kallar sijdar meir Phariseos.

4. Hyrningenn, Naglarner, Strijds-Bogenn, og Drijfararner skulu aller koma j burt fra þeim.

5. Þo skulu þeir vera samt sem Risar, trodande Gatna-Saurenn j Bardogum, og þeir skulu beriast. Þviad DROTTinn skal vera med þeim, so ad Riddararner skulu til Skammar verda.

II. 6. Og Eg vil stirkia Hused Juda, og frelsa Hused Josephs, og Eg vil innsetia þa aptur, þvi Eg Miskuna Mig yfer þa, og þeir skulu blijfa sem þeir voru, þann Tijma Eg hafde ecke burt hrunded þeim, þvi Eg DRottinn þeirra Gud vil Bænheyra þa.

7. Og Ephraim skal vera sem eirn Rise, og þeirra Hiarta skal glediast, lijka sem af Vijne. Hvar uppa þeirra Born skulu sioa, og gledia sig, Ad þeirra Hiortu skulu fagna j DRotne.

8. Eg vil bloasa ad þeim, og samansafna þeim, þvi Eg vil frelsa þa, Og þeir skulu fiølga sig, so sem þeir juku sig fyrre.

9. Og Eg vil nidursoa þeim a medal Folksins, so þeir skulu minnast Mijn j fiarlægum Londum, og þeir skulu lifa med sijnum Bornum, og koma aptur.

10. Þvi Eg vil færa þa aptur af Egyptalande, og Eg vil safna þeim ur Assyria, og Eg vil færa þa j Gilead Land, og til Libanon, so ad Menn skulu ecke finna þa.

11. Og hann skal ganga j giegnum Sioenn (b) Angistarennar, og sloa Bylgiurnar j Sionum, so ad øll þau Diup Vatnsins skulu upp þorna, þa skal Braml þeirra j Assyria nidur þrickiast, og sa Villdis-Sprote j Egyptalande skal afloata.

(b) (Angistarennar) Þad kallast þad Þraungva Haf, þar

þar sem þeir geingu j gegnum þad Rauda Hafed, j giegnum slijkt Þraungt Haf skulum vier aller ganga, Exod. 14, 22.

12. Eg vil styrkia þa j DROttne, ad þeir skulu ganga j hans Nafne, seger DROttinn.

# XI. Capitule.

Sacharias talar (I) um Eydelegging Gydinganna (II) Af þvi, ad þeir hefde Smaanad Christum; og (III) medteked Fals-Propheta.

I. Uppluk þijnum Dyrum þu (a) Libanon! so ad Elldurenn brenne þijn Cedrus-Trie.

(a) (Libanon) Þad er Jerusalem, sem af Libanons Vide var uppbiggd, og af Romverium nidurbrotenn.

2. Groated þier Grene-Trien! Þriad Cedrus-Viderner eru fallner, og sit prydelega Biggingenn er um koll sleigenn. Groated þier Eikurnar j Basan! þvi sa sterke Skogur er upphoggvenn.

3. Menn heyra, ad Hirdararner Groata, þvi þeirra Veglega Bigging er nidur brotenn, Menn heyra Oskur þeirra Ungu Leonanna, þviad Jordans Frackt er eydelogd.

4. So seger DROttinn Minn Gud, Geymed Sloaturs Saudena!

5. Þviad þeirra Herrar Sloatra þeim, og hallda þad fyrer ongva Synd, þeir selia þa, og segia, Lofadur sie DROTTinn, eg er nu rijkur! og þeirra Hirdarar hlijfa þeim ecke.

6. Þar fyrer vil Eg og ecke framarmeir spara þa Innbyggiarana j Landenu, seger DROttinn. Og sioadu! Eg vil loata Folked koma, eirn og sierhvorn j annars Hendur, og j sijns Kongs Hendur, þad þeir nidursloae Landed, og Eg vil ecke hioalpa þeim fra þeirra Hende.

II. 7. Og Eg geymde Sloaturs Saudena, fyrer þeirra vesolu Sauda Skulld, Og Eg took Tvo Stafe til mijn, Þann Eina kallade eg (b) Sætleika, enn Þann Annann kallade eg (c) Sorg, og geymde Saudena.

(b) Ebr. Lystesemie.

(c) Ebr. Reip, Band.

8. Og Eg eydelagde Þria Hirdara j einum Moanade, þvi Eg kunne ei ad lijda þa, so villdu þeir og ei helldur hafa Mig.

9. Og Eg sagde, Eg vil ecke giæta ydar, Hvad sem deyr, þad deye, Hvad sem vanmegnast, þad vanmegnest, Og þeir sem epter eru, ete hvor annars Kiot.

10. Og Eg took Minn Staf Sætleika, og sundurbraut hann, ad Eg j burt tæke Minn Soattmoala, sem Eg hafde bunded vid allt Folk.

11. Og Hann var burt tekenn þann sama Dag. Og þeir foatæku Sauder, sem hielldu med Mier, þeir merktu þar af, ad þad var Ord DROTTins.

12. Og Eg sagde til þeirra, Lijkar ydur þad, þa bered framm so miked sem Eg gillde, Enn vilied þier ecke, þa loated þad vera. * Og þeir vogu so miked sem Eg gillte, Þriatiju Silfur-Peninga.

* Matth: 27, 9. 10.

13. Og DROTTinn sagde til mijn, Varpa þeim burt, so þeir giefest Pottmokurum, Oh! Ein Merkeleg Summa, hvorrar verdur Eg var halldenn af þeim! Og eg took þa Þriatiju Silfur-Peninga, og kastade þeim j Hus DROTTins, so þeir skyllду giefast Potta-Makaranum.

14. Og eg sundur braut minn annann Staf, Sorg, so eg burt tæke Brædraskapenn j millum Juda og Israel.

III. 15. Og DROttinn sagde til mijn, Tak enn til þijn Verkfære eins Heimskulegs Hirders.

16. Þvi sioadu! Eg vil uppvekia Hirdara j Landenu, sem ecke skulu leita epter þvi

Vanmegnada, Eige vitia þess sundurslegna, (d) og ei græda þad særda, Eige helldur hafa Hugsun fyrer þvi heilbrigda. Enn Kioted af þvi Feita munu þeir eta, og j sundur rijfa þess Klaufer.

(d) (Sundurslegna) Alii, Þad Unga, þad Smæa.

17. Vei Skurgoda Hirdurum! þeir sem forlæta Hiordena, Sverded kome a þeirra Armlegg, og a þeirra Hægra Auga, Þeirra Armur skal uppvisna, og þeirra Hægra Auga skal mirkvast.

## XII. Capitule.

Sacharias talar (I) um Ebling og Framgang þess Nya Testamentis; Og (II) um Utsending Heilags Anda.

I. Þetta er Su Byrdenn DRottens Ords yfer Israel, seger Sa DROttenn, sem utbreider Himenenn, og grundvallar Jordena, og skapar Mannsins Anda j hønum.

2. Siaadu! Eg vil giora Jerusalem til eins Hrosunar Bikars Øllu Folke þar um kring, Þvi þad skal og gillda Juda, nær Jerusalem verdur umkringd.

3. Enn þo a þeirre somu Tijd, vil Eg giora Jerusalem ad einum þungum Steine Øllu Folke. Aller þeir sem vilia j burtu bera hann, þeir skulu sig þar a sundur skiera, Þvi aller Heidingiar a Jordunne skulu samannsafnast moote honum.

4. A þeim Tijma, seger DROTTenn, Vil Eg alla Hesta giora Fælna, og þeirra Riddara Hrædda, enn Eg vil hafa Mijn Augu openn yfer Jerusalem, og alla Folksins Hesta vil Eg med Blindleik plaaga.

5. Og Hofdingiar i Juda skulu segia j sijnum Hiortum, Lyyted eins kostar Jerusalem Borgar=Menn vera Orugga, j DROttne Zebaoth þeirra GUde.

6. A þeim Tijma, vil Eg giora Juda Hofdingia til eins brennanda Ofns j Trienu, og ad einu Blysei Strææ, so þeir uppeyde, bæde til hægre og vinstre Sijdu, ollu Folke, allt um kring, og Jerusalem skal frammveiges blijfa a sijnum Samastad j Jerusalem.

7. Og DRottenn skal frelsa Heimele Juda, lijka sem a Firre Tijma, uppa þad, ad Davids Hus skal ei hoatt hroosa sier, eige helldur Jerusalems Borgar=Menn, moot Juda.

8. A þeirre Tijd mun DROTTENN vardveita þa Borgar=Mennena j Jerusalem, og þad mun skie, ad hvor sem veikur er a þeim Tijma, a medal þeirra, hann skal vera sem David, Og Davids Hus skal vera sem Guds Hus, lijka sem Eingell DRottens fyrer þeim.

9. Og a þeim Tijma vil eg þeinkia ad afmaa alla Heidingiana, sem farner eru moot Jerusalem.

II. 10. Enn yfer Davids Hus, og yfer Borgar=Menn j Jerusalem, vil Eg ausa Anda Naadar og Bænar. Þviad * þeir munu siaa Mig, hvorn þeir hafa j giegnum stunged, Og þeir skulu graata yfer honum, lijka sem Menn graata yfer einum einka Syne, og þeir skulu hriggia sig yfer honum, lijka sem Menn hriggia sig yfer einu frumgietnu Barne.

* Joh: 19, 37. Opinnb: B: 1, 7.

11. A þeim Tijma skal eitt mikel Sorgar Klogun vera j Jerusalem, lijka sem þad var hiaa Hadadrimon, a þeim Velle Megiddo.

12. Og Landed mun klaga sig, hvor Ætt hoattur fyrer sig, Ættenn Davids Huss sierilage, og þeirra Husfrur sierilage. Ætt Nathans Huss sierilage, og þeirra Husfrur sierilage.

13. Ætt Hussens Levi sierilage, og þeirra Hus-

Hus-Frur sierilage. Simei Ætt sierilage, og þeirra Hus-Frur sierilage.

14. Lijka so allar Ætter þær epter eru ordnar sierhvor ein sierilage, og þeirra Hus-Frur og so sierilage.

## XIII. Capitule.

Sacharias talar (I) um Fyrergefning Syndanna; Og (II) Christi Forsmaan, j Þvi Nya Testamente.

I. A þeim Tijma skal Davids Hus, og Borgar-Menn j Jerusalem, hafa einn Frijann openn Brunn a moote Syndum og Ohreinleika.

2. A þeim Tijma, seger DROTTenn Zebaoth, Vil Eg Afguda Nøfnenn afmaa af Landenu, so Menn skulu ecke þadann j fra minnast þeirra, Þar med vil Eg og utdrijfa þa Propheta og Ohreinu Anda af Landenu.

3. Þad skal ganga so til, Ef nockur spaaer framarmeir, þa skulu hans Fader og Moder, sem hann fædt hafa, segia til hans, Þu skalt ecke lifa, þvi þu talar Lyge j Nafne DROTTins, Og so skulu hans Fader og Moder, sem olu hann, j giegnum leggia hann, þa hann spaaer.

4. Þvi þad skal skie a þeim Tijma, ad Spaamennerner skulu verda ad Skomm med þeirra Sionum, nær þeir spaa þar um. Og þeir skulu ecke meir jklædast lodnum Kaapum, med hvorium þeir svikia.

5. Helldur skal Hann segia, Eg er eingenn Spaamadur, helldur Akurverks Madur, Þvi Eg hefe Monnum þionad af Mijnum Ungdome.

6. Og ef Madur seger til hans, Hvad er þad fyrer Saarum j Þijnum Hondum? Þa skal hann svara, So er Eg sleigenn j þeirra Husum sem Mig elska.

II, 7. Þu Sverd! Vertu til Reidu yfer Minn Hirder, og yfer þann Mann sem Mier nalægastur er! Seger DROTTenn Zebaoth, Slaa þu Hirderenn, so mun Hiordenn j sundurdreifast, so vil Eg venda Minne Hende til þeirra Smaau.

8. Og þad skal skie, ad j hvoriu Lande sem ad eru Tveir Hluter (seger DROTTinn) þeir skulu upprætast og forganga, enn sa Pridie Partur skal epter verda þar jnne.

9. Og þann Pridia sama Part vil Eg j giegnum Elldenn leida og * hreinsa, lijka sem Menn hreinsa Silfur, og fægia þad, so sem Menn fægia Gull. Þeir munu þa kalla a Mitt Nafn, Og Eg vil Bænheyra þa, Eg vil segia, Þad er Mitt Folk, Og þeir munu segia, DROttinn Minn GUD!

* Pet: 1, 6, 7.

## XIV Capitule.

Sacharias talar (I) um Gydinganna Eydeleggingu; (II) Umvendan Heidingianna; (III) Fordiorfun Offsoknaranna; Og (IV) Um Blessan Christelegrar Kyrkiu i Nya Testamentenu.

I. Sioaed! Tijmenn DROTTins kiemur, ad Menn skulu skipta þijnu Herfange j þier.

2. Þviad Eg vil safna allra-handa Heidingium til Bardaga j moote Jerusalem. Og Stadurenn skal verda yferunnenn, Husenn rænd, og Kvinnurnar skammadar. Og Helmingur Stadarins skal Hertekenn j burt færast, Enn þad Folk sem epter verdur, skal ecke af Stadnum upprætast.

3. Enn DROTTenn mun draga ut, og strijda j moot þeim somu Heidingium, so sem Hann plagar ad strijda a Stirialldar Tijdinne.

4. Og hans Fætur skulu standa, a þeim sama Tijma a Fiallenu Oliveti, hvort ed liggur hia Jerusalem moot Austre, og Oliveti

Fiall skal j sundurklofna j Tvo Parta, fra Austre, og allt til Vesturs, miög vijdt hvor Partur fra ödrum, so sa eine Helmingur Fiallsins skal giefa sig j moot Nordre, enn sa annar j moot Sudre.

5. Og þier skulud flya fyrer svoddann Dal, j millum (a) Minna Fialla, Þvi Dalurenn j millum Fiallanna skal taka allt til Azal, Og þier skulud flya, so sem þier fludud fyrer Jardskialfstanum j Fyrre-Tijd, a Dögum Usias Juda Kongs. Pa skal DROTTinn GUd Minn koma, og aller Heilager med þier.

(a) (Minna Fialla) Þad er, Þeirra Tveggia Hluta af Oliu Fiallenu, sem sundur sprack.

II. 6. A þeim Tijma skal þar eckert Lioos vera, helldur Kulde og Frost.

7. Og þar skal vera Sa Eirn (b) Dagur hvor ad DROTTne er kunnur, hvorke Dagur nie Nott, Enn ad Kvöllde skal vera Lioos.

(b) (Eirn Dagur) Evangelium skal ecke vera lijkamlegur Dagur, edur Lioos, og þar ad auke allt annad, sem hingad til Dags hefur vered Lijkamleg Guds Þionusta, skal þa verda Andlegt.

8. A þeim Tijma skulu rennande Votn fliota af Jerusalem, Helftenn j Sioenn moot Austre, og onnur Helftenn til þess Ytsta Hafs, og þad skal vara bæde Sumar og Vetur.

9. Og DROTTenn skal vera Kongur yfer öllum Londum, a þeim Tijma skal DROTTenn vera ad eins Eirn, og ad eins Eitt hans Nafn.

10. Og Menn skulu ganga um kring j öllu Landenu, so sem a einum slietttum Velle, fra Gibea, og til Rimon, Sunann til vid Jerusalem. Þvi hun skal upphefiast, og vera j sijnum Stad, fra Ben-Jamins Porte, allt til Stadar þess Firsta Ports, ad þvi Hyrningar Portenu, og fra Hananeels Turne, og allt til Kongsins Vijn-Þrugu.

11. Og þar skulu Menn jnne bua, og þar skal eingenn Bolvan framarmeir vera, þviad Jerusalem skal med ollu Ottalaus bua.

III. 12. Og þad skal vera su Ploaga, med hvorre ad DROttinn skal ploaga allt þad Folk, þad sem striidt hefur j moot Jerusalem, þeirra Holld skal visna, a medann þeir standa enn a sijnar Fætur, og þeirra Augu skulu visna j Augnatoftunum, og þeirra Tungur skulu rotna j Munnenum.

13. A þeim Tijma skal DROttenn uppvekia miked Upphlaup a medal þeirra, ad eirn skal taka j annars Hond, og leggia sina Hond a hins annars Hond.

14. Þviad Juda skal strijda j moot Jerusalem, og allt Heidingia Gots, sem þar j kring er, skal samansafnast, Gull, Silfur, og Klæde Ofur mikel.

15. Og so skal þesse Ploaga koma yfer Hestana, Mul-Dyrinn, Ulfalldana, Asna, og allskins Dyr, sem eru j þeim sama Her, lijka sem þeir adrer eru ploagader.

16. Og aller þeir sem epter eru ordner a medal allra Heidingia, sem ferdudust moot Jerusalem, þeir skulu hvort Aar hier uppkoma, ad tilbidia Kongenn, þann DROTTinn Zebaoth, og ad hallda Lauf-Skala Hatijdena.

17. Enn hvor su Ættkvijsl a Jordunne sem ei kiemur upp til Jerusalem, ad tilbidia Kongenn, þann DROttinn Zebaoth, yfer þa skal ecke rigna.

18. Og ef Egyptanna Ættkvijsler ferdast ei upp, og koma ecke, þa skal þad ecke rigna yfer þa. Þad skal vera su Ploagann, med hvorre ad DROTTENN skal ploaga alla Heidingia, sem ecke uppkoma ad hallda Lauf-Skala Hatijdena.

19. Þviad þad skal vera Synd fyrer Egyptana, og alla Heidingiana, sem ei koma

ma upp ad hallda þa Lauf-Skaala Hatijd.

IV. 20. A þeim Tijma mun Til-Reiding Hestanna vera Heilog fyrer DROTTne, Og Katlarner j Huse DROTTins skulu verda sem Munnlaugar fyrer Alltarenu.

21. Hviad aller Katlar, bæde j Jerusalem og Juda, skulu þeim DROTTne Zebaoth Helgader verda, so aller þeir sem offra vilia, skulu koma, og taka þa somu og matgiora j þeim, og þar skulu hier epter ongver Cananei vera j DROttins Zebaoths Huse, a þeirre Tijd.

Ending Prophetans Sachariæ.

---

# Formale

Yfer

## Prophetann Malachiam.

Hebrester hallda, ad þesse Malachias skule vera Esdras, þad læatum vier so vera, Þvi vier vitum eckert sannara af honum ad segia. Utann so miked sem merkia mæ ut af hans Spaadoome, þa hefur hann ecke vered alls fyrer laungu fyrer Hingaburdinn Christi, edur Sa Seinaste Prophete, þvi hann seger j 2 Cap: ad Herrann Christur mune snart koma.

Hann er eirn merkelegur Prophete, og talar merkelega um Christum og Evangelium, hvørt hann nefner eitt Hreint Offur j ollum Heime. Hviad fyrer Evangelium verdur Guds Naad priisud, Hvørt ad er þad Riettа Hreina Þacklætis Offur. Item hann fyrer-spaaer um Tilkomu Johannis Skijrara, so sem Christur sialfur utleggur þad Matth: 11. og nefner Johannem sinn Eingel og Eliam, um hvørn Malachias skrifar.

Hier ad auk aavijtar hann Sitt Folk hardliga, fyrer þad, ad þeir gaafu Kenni-Monnunum ecke sijnar Tijunder, og adrar Skylldur. Og þo þeir giæfe þeim nockud, þa gaafu þeir þad med ongre Hollustu, so sem ad var þad Siuka og Lastada, og hvad þeir villdu ecke hafa sialfer, þad skyllde vera nogu Gott fyrer þa Faatæku Presta, og Predikara. So sem þad plagar ad skie enn nu, ad Þar sem Riett Guds Ord og Truer Predikarar eru, Þeir hliota ad lijda Neyd og Hungur, Enn Fals-Kiennendur hafa jafnann alls Nægter. Nu þo Prestarner verde aavijtader med soddann Offre, þad þeir medtoku og Fornfærdu þad, þvi olle su goda Aagyrne, Enn GUD aavijtar hier, ad Hann hafe stoora Misþocknan a þessu, Og kallar slijka O-Tru og Illsku eina Smaan, sialfum Honum giorda. Þar fyrer hootar hann þeim, ad hann vilie yfergiefa þa, og medtaka Heidingiana Sier til Folks.

Þar epter straffar hann Prestana serdeilis, ad þeir false Guds Ord og kienne Otrulega, og ville þar med marga, Og misbruke sitt Presslegt Embætte, j þvi, ad þeir straffa ecke þa sem offrudu Oduganlegum Hlutum, edur eige voru j ödru Dugandis, helldur losudu þa, og sogdu þa dugandis, so ad þeir mætte faa Offur og Abata af þeim. So hefur Agyrndinn og Buk Sorgenn ætijd Skada giort Orde Guds, og Hans Þionustu, og giörer jafnan Predikarana ad Hræsnurum. Hann straffar þa og fyrer þad, ad þeir hriggdu og fyrerlitu sijnar eiginn Kvinnur, hvar med þeir eirnenn saurgudu Fornernar og Guds-Þionustu-giordina. Þviad j Moses Logmaale var fyrerbodid ad Fornfæra Gude Hriggdar-Forner, og þeir sem hriggver voru mættu ei Fornfæra, og ecke af Fornum eta, Enn slijkt var þeirra Skulld, þeir slyggdu sijnar Kvinnur, og giördu þær grætande, og forsvorudu sig med Dæme Abrahams, hvør ed sijna Agar blaut vt ad reka, og hriggia, Enn hann giörde þad ecke med Illvilia, so sem hann og ecke fyrer Gyrndar-Saker took hana sier til Eigenn-Kvinnu.

# Prophetenn Malachias.

## I. Capitule.

Malachias talar (I) um Guds Elsku til Gydinga; (II) Hverier ed voru Obackláter; (III) Hvers vegna Gud DROttenn villde safna sier Folke af Heidingium.

I. Þetta er Su Byrde sem DROttinn talade j moot Israel fyrer Malachiam.

2. Eg elska ydur, seger DROTTinn, Enn þier seged so, Hvar med elskar Þu oss? Er Esau ecke Jacobs Broder, seger DROTTinn? * Þo lijka vel elskade Eg Jacob.

* Rom: 9, 13.

3. Og hatade Esau, og giörde hans Fiallbyggd j Eyde, og hans Arf ad Dreka Eydu.

4. Og ef Edom yrde segiande, Vier erum fordiarfader, Enn vier viliun aptur uppbyggia þad sem j Eyde er. So seger DROttenn Zebaoth, Ef þeir uppbiggia, þa vil Eg nidur briota, og þad skulu kallast þaug Fordæmdu Landamerke, og eitt Folk hvoriu DROTTinn er reidur æfinnlega.

5. Þad skulu ydar Augu siaa, og þier skulud segia, DROTTENN er Veglegur j Israels Landamerkium!

II. 6. * Sonurinn skal heidra sinn Fodur, og ** Þienarinn sinn Herra, Em Eg nu Fader, hvar er þa Minn Heidur? Er Eg HErrann, hvar ottast Menn mig? Seger DROTTenn Zebaoth til ydar Presta, sem forakta Mitt Nafn. So segied þier, Hvar med foroktum vier Þitt Nafn?

* Ephes: 6, 11. Col: 3, 10. ** Eph: 6, 5. Col: 3, 22. Tit: 2, 9. 1 Pet: 2, 18.

7. Þar med, ad þier offred Ohreint Braud a Mitt Alltare. So seged þier, Hvar med offrum vier Þier Ohreint? Þar med, ad þier segied, Bord DROTTens er fyrerlited.

8. Og nær þier offred nockru Blindu, so maa þad ecke vondt heita, Og nær þier offred nockru halltu, edur siuku, þa maa þad ecke helldur heita vondt. Ber þu þijnum Hofdingia, Hvad gillder, þu verdur honum ei Þacknæmur? Eda hann verdur þijna Personu ecke siaande, seger Sa DROttinn Zebaoth.

9. So

9. So bidied nu Gud, ad Hann sie oss Naadugur, Þviad svoddann er skied af ydur. Þeinked þier, ad hann mune aalijta ydar Personur, seger Sa DROTTenn Zebaoth?

10. Hvor er og a medal ydar sem lokar einum Dyrum? Þier uppkveiked og ecke Elld a mijnu Alltare forgiefens, Eg hefe Ongva Þocknan til ydar, seger DROTTinn Zebaoth, og Mat-Offur af ydar Hondum er Mier ecke Þacknæmt.

III. 11. Enn Mitt Nafn skal vera Dijrdarlegt a medal Heidingianna, fra Uppgange Soolarennar, og til hennar Nidurgongu, Og þar skal gioraft Reykelse j ollum Stodum j Mijnu Nafne, og offrast eitt hreint Mat-Offur. Þviad Mitt Nafn skal vera Dijrdarlegt a medal Heidingianna, seger Sa DROttenn Zebaoth.

12. Enn þier vanhelged þad, j þvi, ad þier seged, Bord DROTTens er O-Heilagt, Og Hans Offur er forsmaad med hans Mat.

13. Og þier seged, Sioa! Þad er ecke utan Arvide, og þier varped þvi so j Vind, seger Sa DROTTenn Zebaoth. Og þier offred þvi sem Rænt er, Hallt og Siukt, og af Þvi offred þier Mat-Offre. Skyllde slijkt vera Mier þacknæmt af ydrum Hondum? Seger DROTTenn.

14. Bolvadur sie sa Svikare sem Karlkins hefur j sinne Hiord, og þa hann heiter nockru, þa offrar hann DROTTne þad sem ecke duger. Þvi Eg er eirn Mikell Kongur, seger Sa DROTTenn Zebaoth, og Mitt Nafn er Hrædelegt a medal Heidingianna.

# II. Capitule.

Malachias aviitar (I) Prestana fyrer þeirra Hyrdulepse, og (II) Folked fyrer þess Vanskickun.

I. Og nu þier Prestar! Þetta Bod snerter ydur.

2. Ef þier ecke heyred þad, og legged þad ecke helldur a Hiarta, ad þier skulud giefa Mijnu Nafne Dijrdina, seger Sa DROttenn Zebaoth, þa skal Eg senda Bolvan a medal ydar, og Bolva ydar (a) Blessun, Jaa, Eg skal bolva þeim, fyrer þvi, ad þier villdud ei taka þad ydur til Hiarta.

(a) (Blessun) Ydar Gots, og allt hvad þier hafed, hvar med Eg hefe blessad ydur og bijgafad.

3. Sioa, Eg vil Formæla ydur, og ydar Sæde, og kasta ydar Helgra Daga (b) Saur j ydar Andlit, og þad skal loda vid ydur.

(b) (Saur) Prestsdæmed hefur Hann teked fra þeim, so sem Hann hotar hier, og læted þa hallda epter Dreggenne, edur Saurnum þar af, so þeir eru ongvo Gillde.

4. So skulud þier þa fornema, ad Eg sende soddan Bod til ydar, so þad skyllde vera Minn Saattmaale vid Levi, seger Sa DROttinn Zebaoth.

5. Þviad Minn Saattmaale var med Honum, til Lijfs og Fridar, og Eg gaf Honum Otta, ad hann oottadest Mig, og hræddest fyrer Mijnu Nafne.

6. Sannleikans Logmaal var j Hans Munne, og þar var ei neitt Vondt fundened j hans Vorum. Hann gieck fyrer Mier Fridsamlega og riettelega, og snere morgum fra Syndunum.

7. Þvi Prestsins Varer skulu vardveita Lærdoomenn, so Menn skulu sækia Logmaaled af hans Munne, þvi Hann er DROttins Zebaoths Eingell.

8. Enn þier erud geingner af Veigenum, og hneixled marga j Logmaalenu, og þier hafed j sundurbrotid Levi Saattmaala, seger Sa DROttinn Zebaoth.

9. Þar fyrer hefe Eg og giört ydur ad Foraktan, og ad Ovirdingu fyrer øllu Folke, af þvi ad þier hielldud ecke Mijnum Vegum, og hafed Manngreinar ꜳlit j Logmꜳlenu.

II. 10. Hvjad * hofum vier aller ecke einn Fødur? Hefur ecke eirn Gud skapad oss? Hvar fyrer forøktum vier þa hvør annann, og vanhelgum þann Sꜳttmꜳla sem giördur er vid vora Fedur? * Eph. 4, 6.

11. Þvi Juda er ordenn eirn Forsmꜳnare, og þar verda Svijvirdingar j Jsrael og Jerusalem. Hvjad Juda vanhelgar Heilagleika DROTTins, sem hann elskar, og drÿger Hoor med Dottur eins annarlegs Guds.

12. Enn DROTTinn mun þa uppræta sem þvilijkt giora, af Huse Jacobs, Bæde Meistarana og Læresveinana, asamt med þeim sem færa Mat-Offur DROTTne Zebaoth.

13. Frammleidis giored þier og þetta, ad þar er ætijd Tꜳr og Grꜳtur, og Andvarpaner, fyrer Alltare DROTTins, so Eg giet ecke framarmeir sied til Mat-Offursins, Eige helldur medteked nockud Þacknæmelega af ydar Høndum.

14. Og þier seged, Hvar fyrer? Fyrer þvi, ad (c) DROTTenn hefur Vitne bored j millum þijn, og Ekta-Kvinnu þijns Ungdoms, sem þu foraktar, so sem hun er þo þijn Fielags-Syster, og þijns Sꜳttmꜳls Husfru.

(c) (DROTTenn) Þad segium vier so a Norrænu, Vegna þess, ad þu fyrerlijtur þijna kiæru Husfru, sem DROTTinn hefur tilskickad þier, og hun er þijn Fielags Syster, til hvørrar þu hefur skulldbunded þig.

15. Sa (d) Einsamle giorde ecke so, hvør þo ad hafde eirn mikenn Anda. Enn hvad giorde sa Einsamle? Hann leitade þess Sædis af Gude (sem hønum var tilsagt.) Þar fyrer, þa siꜳe þeir fyrer ydur, fyrer ydar Anda, og eingenn forakte sijna Ungdoms Husfru.

(d) (Einsamle) Abraham er sa Einsamle, epter þvi sem Esaias kallar hann, þvi aller Gydingar eru komner af hønum, hann tok sier adra Kvinnu, ecke af Lostaseme, so sem þier giøred, helldur til þess, ad hann kynne ad afla Gude Barna.

16. Enn hvør sem hana hatar, sa lꜳte hana fara, seger DROTTenn Jsraels Gud, og giefe henne (e) Skiol Oriettsins af sijnum Klædum, seger DROTTenn Zebaoth. Þvi siꜳed fyrer ydur, j ydrum Anda, og forsmꜳed þær ecke.

(e) (Skiol) Med þvi hun er forsmꜳd af þier, þa er þad tilheyrelegt ad þu klæder hana til Sæmdar, so sem þa ed vered hefur þijn Husfru, og ad hun ecke so mijnkunarlega burt rekest j Armod.

17. Þier of-þreyted DROTTenn med ydrum Ordum, so seged þier, Hvar med ofþreytum vier Hann? Þar med, ad þier seged, Hvør sem Jllt giorer, sa þocknast DROTTne, og hann hefur Lyst til hans, Eda hvar er Sa Gud sem straffar?

# III. Capitule.

Malachias (I) spꜳer um Christum þann Ædsta Prest Nya Testamentesins, og (II) Rædur Gydingum ad þeir snue sier til Christum.

Texte so sem Pistell a Hreinsunar-Hꜳtijd Mariu.

I. * Siꜳed! Eg vil senda Minn Eingel sem tilreida skal Veigenn fyrer Mier, Og Sa DROTTenn mun snart koma til sijns Musteris, hvørs þier leited, Og Sa Sꜳttmꜳlans Eingell, hvørn þier gyrnest. Siꜳed, Hann kiemur, seger Sa DROTtenn Zebaoth. * Matth: 11, 10. Marc. 1, 2. Luc. 7, 27.

2. Enn hvør mun þola Hans Tilkomu Dag? Og hvør mun standast þa Haun nun opinberast? Þviad Hann er sem eins Gull-Smids Elldur, og sem Soapa eirnrar Þvotta-Konu.

3. Hann mun sitia og bræda, og Silfrid hreinsa, Hann mun hreinsa og klaar giora Levi Born, so sem Gull og Silfur. Þa munu þeir færa DROttne Mat-Offur j Riettlæte.

4. Og þa mun Mat-Offur Juda og Jerusalem vera DROttne þacknæmt, so sem ádur, og fyrer morguin, Arum.]

5. Og Eg vil koma til ydar, og straffa ydur, Eg vil vera eirn fliotur Vitnis-Madur a mote Galldra-Monnum, Hordoms-Monnum, Meinsæris-Monnum, og mote þeim sem giora Valld og Oriett Arvidis-Monnum, Eckium og Fødurleysingium, og underþrickia þa Utlendsku, eñ ottast Mig ecke, seger DROTTinn Zebaoth.

6. Þviad Eg er Sa DROTTenn sem (a) ei Lygur, og þad skal ecke Olldungis ute vera med ydur Jacobs Born!

(a) (Ei Lygur) Sem ecke breyte neinu, sem læt þad blijfa þar vid.

II. 7. Þier hafed ætijd, fra Tijd ydra Forfedra, viked af Mijnum Bodordum, og hafed þau ei hallded. So snued ydur nu til Mijn, þa vil Eg og snua Mier til ydar, seger Sa DROTTenn Zebaoth. Þier seiged so, J hvøriu skulum vier snua oss?

8. Er þad riett, ad nockur Madur ræne Gud? sem þier (b) ræned Mig? Þier seged so, Hvørnenn rænum vier þig? med Tijundum, og Upplyptingar-Offre.

(b) (Ræned) Þ.d er, Þier giefed Levitunum og Prestunum þad slæmasta, og stundum alls ecke.

9. Þar fyrer erud þier og Bolvader, so ad aller Hluter hvørsa ur ydar Hondum, þvi þier Pretted Mig aller samann.

10. Enn bered þa alla Tijund j Mitt Korn-Hus, ad þar sie Matur j Mijnu Huse, Og reyned Mig þar jnne, seger Sa DROttinn Zebaoth, hvort Eg mun ecke uppluka Vindaugum Himinsins fyrer ydur, og uthella yfergnæfanlegre Blessan.

11. Og Eg vil straffa (c) Uppetarann ydar vegna, so hann skal ecke fordiarfa ydarn Avoxt a Akrenum, og ad Vijn-Tried sie ydur ecke O-Avaxtarsamt a Akrinum, seger Sa DROTTenn Zebaoth.

(c) (Uppetarann) Allt þad sem Korne Skada giører.

12. So ad aller Heidingiar skulu hrosa ydur sæla vera, þvi þier skulud vera eitt kostuligt Land, seger Sa DROTTinn Zebaoth.

13. Þier taled hardt j moote Mier, seger DROTTinn. So seged þier, Hvad tolum vier j mote þier?

14. J þvi, ad þier seged, Þad er forgiefins ad Mann þionar Gude, og hvad hiálpar þad þo vier hølldum Hans Bod, og færum eirn strangann Lifnad fyrer þeim DROTTne Zebaoth?

15. Þar fyrer prijsum vier þa Forsmaanara, þvi þeir Ogudlegu vaxa, þeir freista Guds, og hafa Lucku og Framgang.

16. Enn þeir Gudhræddu hugga sig so, hvør vid annann, DROTTinn (d) merker þad, og heyrer þad, og þad er eitt Minningar-Brief, fyrer Hann skrifad, fyrer þa sem ottast DROTTinn, og þeinkia a Hans Nafn.

(d) (Merker þad) Hann gleymer þvi ecke.

17. Þeir skulu vera Mijn Eigenndoomur (seger DROTTinn Zebaoth) A þeim Deige hvørn Eg vil giora, og Eg vil spara þa, so sem Mann sparar sinn Son, þann honum þionar.

18. Og þier skulud þar j moot sioa aptur, Hvada Mismunur ad er j millum þeirra Riettlaatu,

loatu, og þeirra Ogudlegu, og a millum þeirra ſem þiona Gude, og hinna ſem Honum ecke þiona.

## IV. Capitule.

Malachias (I) talar um Bleſſan fyrer Chriſtum; og (II) Um Komu Johannis Skijrara.

I. Hviad ſioa þu! þar kiemur Eirn Dagur, hann ſkal brenna, ſem eirn Ofn, þa ſkulu aller Forſmoanarar og Ogudleger vera Hoalmur, og Sa tilkomande Dagur ſkal uppkveikia þa, ſeger DROttenn Zebaoth, Og hann ſkal hvorke Kviſt nie Root loata epter vera af þeim.

2. Enn Sool Riettlæteſins ſkal upprenna yfer ydur ſem otteſt Mitt Nafn, og Hioalpræded under Hans Vængium, og þier ſkulud ganga ut og inn, og vaxa ſem ſem Alle-Koalfar.

3. Þier ſkulud undertroda þa Ogudlegu, þvi þeir ſkulu vera Aſka under ydrum Fotum, a þeim Deige hvorn Eg vil giora, ſeger Sa DROTTinn Zebaoth.

4. Minneſt þier a Logmoal Moyſis Mijns Þienara, hvort Eg honum bifalade uppa Fiallenu Horeb, vid allt Iſraels Folk, med þeim Bodum og Riettindum!

II. 5. Sioa! Eg * vil ſenda ydur Eliam Propheta, oadur enn Sa hinn Mikle og Ognarlege Dagur DROTTins kiemur.

* Matth: 11, 14. cap: 17, 10. Marc: 9, 12. Luc: 1, 17.

6. * Hann ſkal ſnua Fedranna Hiortum til Barnanna, og Barnanna Hiortum til ſinna Fedra, So ad Eg kome ecke, og ſloae Jordina med Banne.

* Luc: 1, 16. 17.

Ending Prophetans Malachiæ.



Apo-